# Biblia

þad er:

# Heiløg Ritning.

Í 5ta sinni útgéfin, á ný yfirskodud og leidrétt,

ad tilhlutun ens íslendska Biblíu-félags.



Selst óinnbundin á skrifpappír 7 rbd. Silfur-myntar.




Videyar Klaustri.

Prentud med tilstyrk sama Félags, á kostnad Sekretéra O. M. Stephensen.

1841.

# Formáli.

Þad íslendska Biblíu-Félag hefir haft þad stødugt áform, sídan hid N. Testam: árid 1826 kom út á prent yfirskodad og endurbætt, ad sjá um ad G. Testa: endurbætt útlegging gjæti og fengist prentud; þessu er nú loksins ordid framgeingt, og getur Félagid ekki svo skilid vid þennann starfa ad þad ei med fám ordum minnist á, hvørs af tilraun þessari er ad vænta og hvørs ekki.

Félagid ætlast til ad útlegging Bibliunnar á Íslendsku sé nú ordin réttari og betri enn hún ádur var. Adal reglan eptir hvørri þad vildi gánga í þessu starfi, og hvar um þeim var skrifad í upphafi, sem bednir voru ad takast verk þetta á hendur, var sú: ad umbreita eingu, nema því sem bersýnilega þætti málleysa, eda þreifanlega rángt útlagt, og þoka útleggingunni nær høfud-textanum ad svo miklu leiti sem Íslendskan leyfdi; ordfærid skyldi vera tilgjørdarlaust og audskilid. Þessari reglu ætlum vér hafi verid meir eda minna fylgt, þó margt kunni hafa yfirsjest, sem eingum mun þikja tiltøku mál þar sem svo mikid og vandasamt verk var med høndum haft, og sem margir þar ad auki hafa ad unnid.

En þó vér ætlumst til ad þessi útlegging Gamla Testamentisins sé betri enn sú eldri, og vída skiljanlegri, er þad einganvegiun vor hugsan ad hún sé fullkomin eda allstadar svo audveld skilníngi manna sem vér vildum óska, og eingra umbóta þurfi hér eptir. Félagid þorir jafnvel ekki ad fullyrda ad hvørgi finnist stadir, hvar umbreitíng þess sem ádur var, géti heitid naudsynleg eda gagnleg eda hún hafi allstadar ordid til bóta.

Í þeirri útleggingu N. Testam: sem útkom 1826 hefir nú sumu verid umbreitt aptur, og ætlum vér ad sú umbreitíng þyki ei allstadar óþørf; þá mundi ei tiltøkumál, þó nokkru hafi verid þørf ad umbreita í hinni eldri Biblíunnar útleggingu, sem ad sønnu var gjørd af dugnadarmønnum, en samt ádur enn þau vísindi er hér ad lúta høfdu nád þeim vidgángi er þeim, med enum framlídandi tíma, var ætladur; svo þó þessi útlegging reyndist betri enn hin eldri, er þad meir tímanna framfør ad þakka, heldur enn þeim mønnum er ad verkinu hafa unnid.

Þessu næst minnist Félagid þess, ad þó hér og hvar sé umbreitt útleggíngu Ritníngarinnar, raskar þessi umbreitíng eingum trúarinnar høfudlærdómi; þeir menn, sem ad verki þessu hafa starfad høfdu eingan annann tilgáng en útvega løndum sínum svo rétta útleggíngu Biblíunnar sem hvørr þeirra hafdi best faung á, í egin módurmáli, og einginn þeirra hefir áskilid sér kaup fyrir sitt ómak og ekki litla áreynslu. Nokkrir þeirra hafa þar ad auki í mørg ár lagt Félaginu nokkurn peninga styrk. Þegar hid Íslendska Biblíu-Félag hófst 1816, urdu nokkrir til, sumir ad heita því árlegum styrk, sumir ad gefa því gjafir; nokkrir bættust vid næstu ár þar eptir. Hid Enska Biblíu-Félag gaf því og á þess fyrsta ári 1200 Spec. og Konúngur vor 60 Rbdl. árlega, hvør gjøf ennú vidheldst. En árleg tilløg hér í landi hættu skjótt ad greidast, og þad sem Félaginu hafdi bætst í upphafi, vard ad litlu í høndum þess manns sem í fyrstu trúad var fyrir fjárgeymslunni. Árid 1826 átti Félagid ekki svo mikid til, ad þad gjæti skuldlaust látid prenta N. Testam:. Sídan hefur þess fjárhagur batnad svo, þó mjøg fáir væru þess medlimir og ad eins einstakir menn legdu því nøkkurn peníinga styrk, fyrir hyggilega medferd á því sem áskotnadist, ad þad nú fyrir 2ur árum gat lánad Herra Sekretéra O. M. Stephensen 3000 Rbdl. þá hann lét á sér merkja ad hann vildi ei teljast undan ad láta prenta Biblíu útleggínguna endurbætta, á sinu kostnad. Til þess ad Herra Sekretérinu géti stadid vid ad selja Biblíuna fyrir 4 Rbdl. 48

skild. á prentpappír, hefir hann lán þetta rentulaust í 4 ár og auk þess í þokkabót 350 Rbdl. Þessum 350 Rbdl. og rentu í 4 ár af 3000 Rbdm. er þá eiginlega af Félaginu kostad til þessa upplags. Nú er Félagsins adal ósk ad Herra Sekretérinn, sem í voninni hefir tekist mikid og dírt verk á hendur, géti ordid skadlaus, af sínu fyrirtæki, og Félagsins fjárhagur svo batnad, ad þad verdi fært um ad út-býta fátækum, bókinni annadhvørt géfins eda fyrir hálfvirdi, án þess ad svifta sig tækifæri til, þá tímar lída fram, ad endurbæta enn betur útleggíngu þessa, og leidrétta þad sem nú hefir yfirsjest; en þetta gétur því ad eins skéd ad fleiri gjørist þess stødugir medlimir, eda menn finni køllun til ad géfa því sæmilegar gjafir. Þá er og vonandi ad med tímanum fáist sú útleggíng Bibliunnar á íslendsku sem ei þurfi ad standa mjøg á baki annara þjóda, ad hvørju verdt væri allir þeir vildu hyggja sem ant er um kristilega upplýsíngu í landinu. En í stadin fyrir leingri formála bætum vér hér vid nokkurskonar ágripi af inni-haldi Bibliunnar bóka, til leidarvísis lesendum Bibliunnar, og þó stutt sé yfirfarid, ætlumst vér til ad þessi leidarvísir sé almúga mønnum betri enn ekki.



Bækur Gamla Testamentisins eru þær bækur sem Gydíngar bygdu á sína trú og Guds dýrkun. Nær, eda af hvørjum, þessum bókum hafi verid safnad í fyrstu svo sem í eitt, vita menn ekki med vissu; líklegt þikir ad þad sé ei ad øllu leiti skéd, meir enn 400 árum fyrir Krists Fædíngu.

Þessu bókasafni skiftu Gydíngar sjálfir í þrjá parta: Løgmál, Spámenn og adrar helgar bækur. Eptir efninu má skipta þeim, 1° í Søgubækur, sem eru 17 ad tølu, 2° í Ljóda bækur 5 og 3° Spá-manna bækur, (4ar stærri og 12 minnni).

Fremstar í þessu safni eru 5 bækur Mósis. Margt gjørir høfundinn markverdann; hans fædíng og uppfóstur, hans rit, dugnadur og løggjøf. Þad er og stødugur vitnisburdur Ritníngarinnar, ad hans líki hafi ekki medal Gydínga fædst. Hans løgum er enn fylgt í mørgum greinum af Gydíngum, og úr hans løgum er margt tekid inn í løg kristinna manna. Samaritanar og Sadúsear vildu ei vita af helgi annara Ritníngarinnar bóka, heldur enn Mósis bókanna.

1ta Bók Mósis segir frá skøpun heimsins og mannkynsins, samt frá ættfødur Gydínganna Abra-ham og kjørum hans ættar, þángad til Sonarson hans Jakob deyr. Inní þessa frásøgu er skotid mørgum ættartølum og søgu um syndafallid og syndaflódid, og af hvørjum ættlidum lønd voru bygd í austurálfunni.

Sú ønnur Mósis bók er saga Abrahams nidja í Egyptalandi, um Mósis Fædíngu hérumbil 1600 árum fyrir Krists Fædíngu og fyrirtæki ad losa sína ættmenn úr ánaud, um Gydínga burtfør úr Egyptalandi og ferdir í Arabíu audn. Í sømu bók er og gétid ýmislegra laga, þeirra 10 bod-orda, og annara fleiri. Bókin sýnir ad mesta ánaud er vegur til frelsis, einn madur meir verdur enn heil þjód, og annad þesshattar.

Þridja bókin inniheldur løg fyrir prestana, sem skyldu fórnfæra, dæma um næma sjúkdóma, hafa umsjón hjónabanda; bókin inniheldur fátt sem vidkomi ødrum enn Gydíngum.

Sama má segja um Mósis fjórdu bók, er inniheldur bædi nokkur fleiri løg og søgu um ferdir Gydínga í eydimørkinni fyrst og seinast. Í þessari bók er sú merkilega saga um Bíleam, hvør ádur er til vor á medal í ljódum.

5ta Móses Bók er ad mestu leiti ei annad enn ítrekun þess sem enar fyrri þrjár innihalda, og Mósis skilnadar rædur og blessan. Hér afmálast fyrir allra sjónum sá mikli løggjafi, og tilgángur hans laga. Nidurlag bókarinnar sjá allir ad Móses hefir ei samid.

Jósúa bók segir frá því hvørnig Jósúa, eptir ad Móses var dáinn, nádi undir sig meststøllu Kanaanslandi og skipti því milli Israelsmanna 12 ættkvísla.

Dómara bókin minnist á vísſa afreksmenn sem hjálpudu Gydíngum þegar þeir komust í krögg-ur, ad reka af höndum sér ofbeldi og yfirgáng voldugra nábúa. Margt kémur merkilegt fyrir í þessari bók t. d. sigurhróss Sálmur Debóru, Jefta heit, Abímeleks, Jótams og Samsonar saga, eldsta dæmisaga og eldsta gáta er menn vita til í heiminum, finnst í þessari bók.

Ruts bók er ad því leiti merkileg ad hún segir frá Rut sem var amma Davíds, og inniheldur ein og önnur hjartanleg atridi vidvíkjandi náúnga vidskiptum. Kap. 1, 8 — 18. 2, 11 — 16. 3, 16. 4, 16. Saga Israelsmanna Kóngs ríkja er sögd í bádum Samúels og bádum Kónganna bók-um. Fyrri Samúels bókin inniheldur æfisögu þess seinasta dómara Samúels, og hins fyrsta Kóngs Israelsmanna Sáls; seinni bókin segir frá ríkisstjórn Davíds. Fyrri bók Kónganna segir frá and-láti Davíds, Salómons ríki og verkum; þar er getid um musteris byggínguna, og hvörsu ríkid skiptist eptir Salómons dauda, í tvö, Júda og Israels ríki, samt um þá fyrstu Kónga í bádum þessum ríkjum. Saga enna seinni Kónga í bádum ríkjunum er efnid í þeirri seinni Kónganna bók; þó er líka þar ad finna söguna um spámennina Elía og Elísa. Audsjed er ad allar þessar 4 bækur, eru ágrip af leingri sögu. (1 Kgb. 11, 42. 2 Kgb. 13, 12. og vídar). Bækurnar dæma um stjórnendurnar, eptir því hvad þeir voru gudrækuir, en segja samt fylgislaust frá löstum, jafnvel þeirra, er annars er hrósad. Saga þessi nær yfir 400 ár. Af hvörjum, eda á hvörjum tíma bækurnar eru skrifadar er óvíst.

Kroníku bækurnar segja frá sumu sem Samúels og Kónga bækurnar innihalda og bæta nokkru vid. Í þeim finnst ættartala og saga Konúnganna þángad til ríkin eru eydilögd. Af þessu má ráda, og einkum af nidurlagi seinni Kroníku bókarinnar, ad þessar bækur séu ekki skrifadar fyrri enn ept-ir herleidínguna.

Esdra bókin ber nafn þess merkismanns sem Persa Kóngur Artaxerxes setti fyrirlida þeirra Gydínga, sem heim fóru frá Babýlon til Jerúsalem á hans dögum. Í þessari bók segir frá, bædi því sem Serúbabel ádur hafdi gjört, og hinu er Esdra nú framkvæmdi. Líklegt er ad Esdra sjálfur hafi skrifad, ef ei alla, þá samt meiri hluta þessarar bókar. Af þessari bók má sjá hvörnig Serú-babel var ad nokkru leiti ollandi því hatri, sem leingi vidhelst sídan, milli Gydínga og Samverskra.

Nehemía bókin er víst samin af Nehemía, er frekti Esdra fyrirtæki med rádi og dád og má álítast sem vidbætir vid Esdra bókina.

Esters bók veit eingin hvör samid hefir; hún segir frá hvada tilefni var til hátídarinnar Pur-im, sem haldin var í minníngu þess ad Gydíngar frelsudust frá ofsókn í Persíu, fyrir fulltíngi Pers-iskrar Drottníngar af Gydínga ætt og Gydíngs nokkurs er hét Mardokai. Lúther áleit þessa bók ómerkilega, og lítils verda fyrir kristna.

Eptirfylgjandi bækur Bibliunnar eru í ljódum, því skáldskapur tídkadist snemma hjá Gyd-ínga þjódinni.

Fyrst medal þessara bóka kémur Jobs bókin. Hún lýsir rádvöndum láusmanni sem ratar í þær hörmúngar ad honum liggur vid örvæntíngu. Þar eptir veitist honum enn meiri velgeingni enn ádur, fyrir gudlega tilhlutan. Höfud augnamid þessarar bókar sýnist vera ad kénna: ad orsakir til manna hlutfalls séu ófinnanlegar eins og Forsjónarinnar rádstafanir yfir höfud, og ad mótlæti megi því ei reikn-ast hegníng. Einginn veit gjörla nær eda af hvörjum bók þessi er samin. Menn hafa giskad á Móses, Salómon og fl. Bókin er vída skáldleg og lærdómsrík.

Sálmarnir eru orktir á ymsum tímum og af ymsum skáldum; þeir eru samt allir kéndir vid Davíd, einkum sökum þess ad hann kom á saung vid ena opinberu Guds dýrkun Gydínganna. Þeir eru orktir af Móses, Davíd, Asaf, Heman, Ethan og fleirum. Eptir efninu má skipta þessum Sálmum í þá sem vidvíkja allri Gydínga þjód, einstökum mönnum, og sidferdi og gudhrædslu yfir höfud ad tala. Hvad þennann Sálma flokk áhrærir, sjá allir ad þad muni ei lítid hjálpa til skilníngs; ad vera vel kunnugur yrkisefninu, eda Gydínga sögunni.

Þrjár bækur G. Testam: eru eignadar þeim vísa Kóngi Salómon.

1) **Ordskvidirnir**, sem er safn vissra sundurlausra sannmæla og snillyrda, sem hvørt um sig gefur nóg umþenkíngar efni, og er gagnlegra ad ein og ein grein sé nákvæmlega yfirvegud, heldurenn margar lesnar í einu.

2) **Prédikarinn.** Bókin er þúngskilin og hefir því opt verid misskilin. Hún afmálar samt berlega smámuni lífsins, þess þjáníngar og gladværdir. Eins er og høfundurinn einatt gleymi sjálfum sér, því mótsagnir finnast hér nokkrar og er líklegt ad annadhvørt hafi fleiri unnid ad þessu verki eda sami høfundur á ymsum tímum.

3) **Lofkvædid** afmálar trúfasta elsku og hennar yfirburdi yfir þá hvikulu. Nokkrir hafa skilid þetta Kvædi sem þad væri afmálun þeirrar elsku sem á ad vera milli Konúngs og hans þegna; adrir sameiníngar Krists og hans safnadar.

Spámennirnir sem og kallast Guds menn, voru ad gáfum og dugnadi framúrskarandi; þeir voru innblásnir af Guds anda, og brúkudu þad sem þeim var gefid til ad útlista, forsvara og útbreida þá sønnu trú. **Móses** er talin sem fyrirmynd allra Spámannanna. Í 1 Sam. b. 10. kap. er fyrst getid um Spámanna skóla. Þeir tóku opt hlutdeild í stjórnar søkum, søgdu sjálfum Kóngunum til syndanna; søgdu fyrir þad ókomna, saman tóku søgubækur, fóstrudu Kónga børn, og þessh: allstadar lýsir sér hjá þessum Guds mønnum innilegt vandlæti og alvørugefni, gudlegar háar hugsanir og tilfinníngar. Meir eda minna af ritum 16 þessara Guds manna, er ad finna í Bibliunni, og er þessum ritum nidurradad eptir þeirra stærd.

**Esajas** lifdi undir Usía og Esekía Kóngum í Júdaríki og var mikils metin madur. Æfisaga Esekía Kóngs, sem hann skal hafa samid (2 Krb. 26, 22.), er ei framar til. Þessi Spámadur er einhvør sá mesti af Gydínganna vitru mønnum. Hvørt sem hann kennir, advarar, ógnar eda huggar, lýsir sér sá Guds Andi sem í honum bjó. Margir af þeim seinni Spámønnum hafa eptir honum stælt.

**Jeremías** lifdi í herleidíngunni, og flúdi, sér naudugt, med ødrum Gydíngum til Egyptalands, hann átti toluverdann þátt í ríkisstjórnar efnum. Var ofsóktur af sínum løndum, þó hann bædi elskadi innilega fødurlandid, og gjærti hófs í øllu. Hann las skrifaranum Barúk fyrir sína spádóma, er skipta má, í þá spádóma er hann framflutti ádurenn Jerúsalem var unnin, og eptir ad hún var tekin. Hrærandi sorgarblæa sýnist hvíla yfir hans ritmáta. 5 harmakvædi, ort af sama Guds manni um Jerúsalems eydileggíngu, eru til, sem kallast Harmagrátur, en ei þad harmakvædi, sem hann orkti eptir Jósía Kóng, 2 Krb. 35, 25.

**Esekíel** lifdi og kendi í útlegd, í Kaldeu. Hann spáir um Júdaríkis nálægu og algjørlegu eydileggíngu. Afdrif ens seinasta Kóngs og annara þjóda. Lifandi ímyndunar kraptur er hans adal audkenni. Allt afmálast fyrir honum med lifandi litum og mjøg nákvæmlega; stundum sýnist sem málverkid verdi heldur svæsid. Innanum finnast ágjætar hugsanir vidvíkjandi sidferdi og Guds dýrkun.

**Daníel** var fluttur úngur til Babýlon, og er þar uppalinn sem Konúngsborinn vid hirdina. Kémst í kjærleika Kóngsins, fyrir draums þýdíngu. Hann lifir undir Kyrus ríkisstjórn. Forløg þess persiska einvaldsdæmis og ríkis Alexanders mikla, samt Gydínga þjódarinnar, er høfud innihald spádóma þeirra sem í bókinni finnast. Mikid af þessu riti halda lærdir menn ei geti verid samid af Daníel.

**Hóseas** lifdi um sama leiti í Israelsríki sem Esajas í Jerúsalem. Hans rædur ógna og áminna. Stíllinn er tilgjørdarlaus. **Jóel** lýsir skáldlega landsins eydileggíngu af engisprettum, sem í austurløndum eru mikil landplága, og endar med afmálun betri tída.

**Amos** var fjárhirdir, hans stíll lýsir því og; hann afmálar Israelsríkis sida spillíng, einkum hardýdgi vid þá máttar minni.

Af **Obadjas** er ei til nema spádómur móti þeim dramblátu **Edomítum**, sem Jeremías skal hafa stælt eptir.

**Jónasar** bók er ad mestuleiti ei annad enn saga um þad er fram vid hann sjálfann kom, sem óvíst er hvørnig á ad skiljast.

Af Míka eru þrjár rædur til, ei ólíkar ad ordfæri Esajas á hvørs døgum hann lifdi; þær eru stíladar til hvørsteggja ríkisins. Efnid er auk hótana, fyrirheit betri tída.

Nahum lifdi á døgum Esekía Kóngs. Høfud efni hans bókar er afmálun inntøku og eydileggíngar Ninive borgar. Margt er hér þessvegna þúngskilid ad menn þekkja lítid til Assyríu søgu.

Habakuk kvedur um sorglega eydlleggíngu Júdaríkis af Kaldeumønnum. Hann endar med Lofsálmi um Gud sem hegnara ránglætisins.

Sefanía lifdi um sama leiti sem Jeremías. Hann kveinar yfir afgudadýrkun og spilltum sidum, lætur í ljósi laungun eptir réttari gudsdýrkun.

Haggai og tvø eptirfylgjandi Spámanna rit, verdur hægra ad skilja, þegar jafnsídis eru lesnar Esdra og Nehemía bækurnar; þeir lifdu á døgum Daríus Kóngs. Haggai fjórar rædur eru ei annad enn áminníng af Drottins hálfu ad flýta musteris byggíngunni.

Sakarías lifdi um sama leiti sem Haggai, hann er einn af þeim myrkari Spámønnum, einkum í fyrstu kapítulunum, sem innihalda sjónir er margvíslega má skilja. Hinir kapít. innihalda afmálun fridarins lukkulegu tída, undir Drottins vardveitslu.

Malakías lætur sér ant um ad mæla fram med útvortis gudsdýrkuninni og vill hún sé nakvæmlega eptir Móses løgum.

Fjórar bækur teljast enn med Gamla Testm. sem eru samdar seinna enn þær ádur tøldu, og af því menn héldu ad spámanna tídin væri þá lidin, voru þær aldrei teknar til jafns vid hinar, samt eru þær í mørgum greinum merkilegar; einkum er:

Síraks bókin uppbyggileg, skrifud fyrst á Hebresku af Jesu Síraksyni, hérumbil 200 árum fyrir Krists fædíngu, útløgd á Grisku af hans sonarsyni. Hún er lík Salómons Ordskvidum og inniheldur ágjætt safn af sannmælum og lífsreglum.

Spekinnar bók ætla menn sé skrifud 100 árum seinna. Í henni er Salómon látinn kénna margvíslega speki. Í þessari Bibl. bók er fyrst med berum ordum kénnt ad líf sé til eptir þetta (kap. 3, 1. 4, 7. og vídar).

Fyrri Makkabea bókin segir frá þeirri hugprúdu ætt Mattatiasar; Júdas kalladur Makkabai (sá hrausti), var þeirra mesta hetja. Bókin er mjøg merkileg; því af henni géfst oss kostur á ad vita kjør Gydínga frá því Alexander Mikli vann Persíu, til þess Antíókus Gøfgi kom til ríkis í Sýrlandi 175 árum fyrir Krists fædíngu, bókin var fyrst skrifud á Hebresku máli, enginn veit af hvørjum; en er nú ei til á Hebresku heldur á Grisku.

Sídari Makkabea bókin er ágrip af stærri søgu sem Jason nokkur frá Kyrene skal hafa samid um Gydínga, medan þeir þjónudu undir Sýrlands Kónga. Þessi bók talar um hid sama sem hin fyrri og sýnist sem høfundurinn sé ei frásneiddur ýkjum; samt koma hér fyrir hræraudi frásøgur.

En nú eru til tvær adrar bækur, kéndar vid Makkabeana, en þær þykja ómerkilegar, og hefir þeim því aldrei verid snúid á norræna túngu; og Lúther snéri þeim el heldur á þýdsku.

Barúks bók inniheldur tvø bréf sem eignud eru Jeremías og hans skrifara Barúk, annad til þeirra sem eptir urdu í Jerúsalem, þá Gydíngar voru herleiddir til Babýlon, en hitt til þeirra herteknu í Babýlon.

Júdits bókin segir frá hvørsu ekkjan Júdit, med hug og kjænsku frelsadi Gydínga frá ágángi Assýríu herforíngja Hólófernes. Pad þikir túlegt ad ei hafi allt tilgeingid eins og hér segir frá; samt er eitt og annad eptirtekta verdt í þessari bók.

Tobía bók er føgur afmálun dygdugra og mannkjærlegra ættmanna, sem ad lyktum uppskéra ávøxt gódmennskunnar og traustsins til Guds. Í þessari bók finnast menjar hjátrúarinnar; en þær rira ei þá ágjætu lærdóma sem bókin inniheldur.

Greinir vidvíkjandi Daníel og Esters bók eru ómerkari. Manasse bæn er af G. Testamentisins bókum eflaust seinast til ordin, og ekki samin af Manasse Kóngi.

Nýa Testamentisins bækur eru allflestar samdar af Postulunum eda þeirra Læ.isveinum; nokkrar sem finnast í þessu safni, voru menn í hinni fyrstu kristni í vafa um hvør hefdi samantekid, hvørs vegna nokkrir kristnir søfnudir mótmæltu þeim, og vildu ei láta vera reglu trúarinnar, t. d. 2ad Péturs bréf, Jakobs og Júda bréf, 2ad og 3ja Jóhannesar bréf, bréfid til hinna Hebreska, og Jóhannesar Opinb:.

Þad N. Testam: inniheldur 1. Gudspjøllin, eda lífsøgu Krists, og søgu um kristindómsins fyrstu kénningu eptir Krists himnaför, sem kallast Postulanna Gjørningar. Mattheus og Jóhannes Jesú Lærisveinar, samt Markús lærisveinn Péturs Postula og Lúkas Læknir, fylgdar madur Páls Postula, hafa samid Gudspjøllin og Lúkas Postulanna Gjørninga bók. 2. 21 Sendibréf hvar af 14 eru eignud Páli Postula, 3 Jóhannesi, 2 Pétri, og Jakob og Júda sitt hvørjum. 3. Jóhannesi, Gudspjallamanni Opinberingar bókin. Sendibréfin eru sum skrifud vissum søfnudum í hinum og þessum borgum; en sum øllum Gydingum sem kristni høfdu tekid híngad og þángad út um heiminn, og nokkur einstøkum mønnum fyrir utan Gydíngaland. Þessi bréf leysa úr hinum og þessum spurníngum vidvíkjandi þeim greinum trúarinnar er um þad leiti þóktu, á hvørjum stad, umtals efni, og innihalda þar ad auki margvíslegar áminníngar til kristilegrar breitni.

Lúkas segir sjálfur frá hvørs vegna og hvørnig hann hafi sína Gudspjalla søgu og Postulanna Gjørnínga samid: Saga Matt. og Markúsar segir frá mørgu enn sama sem Lúkas, og sumstadar med sømu ordum; þó minnast þeir Matt. og Markús á sumt sem hann gétur ekki um; eins og þessir líka géta sums, er hinir minnast ekki á, eins eru þeir Matth. og Markus mismunandi innbyrdis. þó eru allir þeir í høfudefninu samhljóda. Jóhannis Gudspjøll innihalda fátt sem hinna Gudspjalla mannanna saga gétur um. Hvørsvegna og almennt er haldid ad hann hafi skrifad sín Gudspjøll seinna enn þeir, og med ásettu rádi slept því er hann fann hjá þeim. Hann segir sjálfur frá hvad sér hafi gengid til ad semja þessa sína Gudspjalls søgu med þessum ordum: Svo þér trúid ad Jesús sé Kristur, Sonur Guds, og ad þér sem trúid hefdud lífid í hans nafni."

Opinberíngarbókin inniheldur spádóma um kristindómsins sigur yfir Gydínga og heidíngja átrúnadi, og er bókin skrifud í stíl enna gømlu Spámanna.

Í fyrstunni voru Nýa Testamentisins bækur adeins híngad og þángad til í vissum Søfnudum eda hjá einstøku mønnum og leid lángt um, ad menn ætla, þángad til þær allar komu í eitt safn, sem skédi med því móti, ad hvør høfundur midladi ødrum afskrift þeirra bóka er hann átti fékk afskrift hjá hinum, þegar spurdist á vixl til þessara bóka, og því leingra sem tímar lidu framm því meir var haldid uppá þessar bækur, því í upphafi kristninnar voru bækurnar ekki til og sídan ad eins ad nokkruleiti fám kunnugar. Sú munnlega predikun var þá einhlýt, og hjá Papistum er hún enn í mesta gildi, svo afløgud sem nærri má géta ad hún nú muni ordin, eptir svo margar aldir. Gamla Testamentsins bækur voru á fyrstu øldum kristninnar lesnar í søfnudunum og med þeim lestri og útskíríngu þess sem lesid var, kristileg þekkíng lífgud og nærd.

Nú í margar aldir hafa bækur Nýa Testamentisins verid af flestum kristnum álitnar svo sem allrar kristilegrar trúar og þekkíngar adal uppspretta, einkum þó sídan sidabótin hófst í nordur álfunni (1517).





# GENESIS.

## Fyrsta Bók Mósis.

### 1. Kapituli.

Heimsins sköpun.

1. Í upphafi skapadi Gud himin og jørd.
2. Og jørdin var í eydi og tóm, og
mirkur yfir djúpinu, og Guds Andi lagdist
á djúpid. 3. og Gud sagdi: verdi ljós, og
þar vard ljós. 4. Og Gud sá, ad ljósid var
gott. Þá adskildi Gud ljósid frá mirkrinu.
5. Og kalladi ljósid dag, en mirkrid nótt. Þá
vard kvøld, og þá vard morgun, hid fyrsta
dægur. 6. Og Gud sagdi: verdi festíng milli
vatnanna, svo ad hún adskilji vøtn frá vøtn-
um. 7. Þá gjørdi Gud festíngu, og adskildi
vøtnin, sem voru undir festíngunni, frá þeim
vøtnum sem voru yfir henni, og þad skédi svo.
8. Og Gud kalladi festínguna himin. Þá
vard kvøld og þá vard morgun, hid annad dæg-
ur. 9. Og Gud sagdi: safnist vøtnin undir
himninum í einn stad, svo ad sjást megi þurrt
land; og þad skédi svo. 10. Og Gud kall-
adi þurrlendid jørd; en samsafn vatnanna kall-
adi hann sjó. Og Gud sá ad þad var gott.
11. Og Gud sagdi: láti jørdin af sér upp-
spretta græn grøs og jurtir, hafandi sædi í sér,
og ávaxtarsøm tré, svo ad hvert beri ávøxt
eptir sinni tegund, og hafi í sér sitt egid sædi,
á jørdunni; og þad skédi svo. 12. Og jørdin
lét á sér spretta græn grøs og jurtir, hafandi
sædi hvert eptir sinni tegund, og ávaxtarsøm
tré, hafandi sín egin sædi í sjálfum sér, hvert
eptir sinni tegund, og Gud sá ad þad var gott.
13. Þá vard kvøld og þá vard morgun, hid
þridja dægur. 14. Og Gud sagdi: verdi ljós
á festíngu himinsins, svo þau adgreini dag frá
nótt, og séu teikn tímum, døgum og árum.
15. og séu ljós á festíngu himinsins, til ad
lýsa yfir jørdina; og þad skédi svo. 16. Og
Gud giørdi tvø stór ljós; þad stærra ljósid til ad
ráda deginum, og hid minna ljósid til ad ráda
nóttunni, þar ad auki stjørnurnar. 17.

V. 1. Sálm: 33, 6. Jer. 32, 17. V. 2. 5 Mós. 32, 11. V. 5. hér brúkast dægur eins og í fornu máli fyrir: dag og nótt. V: 7. Sálm, 148, 4. Jer. 51, 16.

Og Gud setti þau á festíngu himinsins, ad þau
skyldu lýsa jørdunni, 18. og ráda degi og nótt,
og adgreina ljós og mirkur. Og Gud sá ad
þad var gott. 19. Og þá vard kvøld og þá
vard morgun, hid fjórda dægur. 20. Og Gud
sagdi: vøtnin fyllist af sveimandi lifandi sképn-
um, og fuglar fljúgi yfir jørdina undir him-
insins festíngu. 21. Og Gud skapadi stóra
hvalfiska og allsháttar lifandi sképnur sveim-
andi, sem fylla vøtnin, eptir þeirra tegund, og
alla fleyga fugla, eptir þeirra tegund. 22. Og
Gud sá ad þad var gott. Og Gud blessadi
(þessar sképnur) og sagdi: frjófgist og fjølgid
og fyllid vøtn hafsins. Og fuglinn margfald-
ist, á jørdunni. 23. Þá vard kvøld og þá
vard morgun, hid fimta dægur. 24. Og
Gud sagdi: jørdin framleidi lifandi sképnur eptir
þeirra edli: fénad, skridkvikindi og dýr jardar-
innar; hvert eptir sinni tegund. Og þad skédi
svo. 25. Og Gud skapadi dýr jardarinnar,
hvert eptir sinni tegund, og allskyns skridkvik-
indi jardar eptir sinni tegund; og Gud sá ad
þad var gott. 26. Og Gud sagdi: vér viljum
gjøra manninn eptir mynd og líkíngu vorri,
svo ad hann drottni yfir fiskum sjáfarins, og
yfir fuglum loptsins, og yfir fénadinum á allri
jørdunni, og yfir øllum skridkvikindum sem
hrærast á jørdunni. 27. Og Gud skapadi
manninn eptir sinni mynd, hann skapadi hann
eptir Guds mynd, og hann skapadi þau karl-
mann og kvennmann. 28. Og Gud blessadi
þau, og sagdi til þeirra: verid frjóssøm, og
margfaldist og uppfyllid jørdina, og gjørid
ykkur hana undirgéfna! drottnid yfir fiskum
sjáfarins og yfir fuglum loptsins og yfir øllum
dýrum sem hrærast á jørdunni! 29. Og Gud
sagdi: sjáid! allsslags jurtir, sem sá sér, á
allri jørdunni, og allra handa ávaxtarsøm tré,
sem sá sér, géf eg ykkur til fædslu. 30. Og
øllum lifandi dýrum jardarinnar og øllum fugl-
um himinsins, og øllum skridkvikindum á jørd-
unni (hefi eg géfid) grænar jurtir til fædslu.
Og þad skédi svo. 31. Og Gud leit yfir allt
sem hann hafdi gjørt, og sjá! þad var harla
gott, og þá vard kvøld og þá vard morgun,
hid sjøtta dægur.

## 2. Kapituli.

1.) Hvíldar dagurinn. 2.) Betur lýst skøpun manns-
ins. 3.) Paradís lýst. 4.) Konan skøpud og sképn-
unum géfin nøfn.

1.) 1. Þannig algjørdist nú himin og jørd, og
allur þeirra her. 2. Og svo fullkomnadi Gud
á þeim sjøunda degi sín verk, sem hann hafdi
gjørt, og hvíldist þann sjøunda dag, af øllu
sínu verki, sem hann hafdi gjørt. 3. Og hann
blessadi þann sjøunda dag og helgadi hann;
af því hann hvíldist á þeim sama degi, af
sínu verki sem hann hafdi skapad og gjørt.

2.) 4. Þetta er saga um skøpun himins og
jardar: Þegar Gud Drottinn skapadi jørdina
og himininn, þá voru enn eingin tré merkurinnar
á jørdunni; 5. og eingar jurtir spruttu enn
nú á landinu; því Gud Drottinn hafdi enn ekki
látid rigna á jørdina og þar var eínginn madur,
sem yrkti jørdina. 6. En þoka gékk upp af
jørdunni, og vøkvadi alla jørdina. 7. Og
Gud Drottinn myndadi manninn af jardar
leiri og blés lifandi anda í hans nasir, og svo
vard madurinn ad lifandi sálu.

3.) 8. Og Gud Drottinn plantadi Aldingard
í Eden, mót austri og setti þángad manninn,
sem hann hafdi skapad. 9. Og Gud Drott-
inn lét uppvaxa af jørdunni allra handa tré,
sem føgur voru ad sjá, og gyrnilegt var ad
eta af, og lífsins tréd í midjum Aldingard-

---

V. 26. 5, 1. 9, 6. V. 4. Med þessu versi sýnist byrja ný saga um heimsins skøpun. Og hér kémur fyrst fyrir Jehóva, sem er ádur útlagt: Drottinn. 2 Mósb. 3, 14. Opb. b. 1, 8. V. 8. Eden. þýdir: unadsemd.

inum, og skilníngs tréd góds og ills. 10. Og á rann frá Eden til ad vökva Aldingardinn, og þadan skiptist hún, svo þar urdu fjögur vatnsföll. 11. Þad fyrsta heitir: Píson; þad fellur um allt landid, Kevila, og þar finnst gull. 12. Og gull þess lands er ágjætt. Þar finnst kristallur og steinninn Onyx. 13. Þad annad vatnsfall heitir: Gíkon, þad fellur um allt landid: Kús. 14. Hid þridja vatnsfallid heitir: Kidekel. Þad fellur fyrir austan Assyríu. Hid fjórda vatnsfallid er: Frat. 15. Og Gud Drottinn tók manninn og setti hann í Aldingardinn, í Eden, ad hann skyldi yrkja hann og vakta. 16. Og Gud Drottinn baud manninum og sagdi: af öllum trjám í Aldingardinum skaltu eta; 17. en af skilníngs trénu góds og ills skaltu ekki eta; því á hverjum degi sem þú etur af því, skalt þú vissulega deya.

4.) 18. Og Gud Drottinn sagdi: þad er ekki gott ad madurinn sé einsamall, eg vil gjöra honum medhjálp, eptir hans mynd; 19. því þegar Gud Drottinn hafdi skapad af jördunni allra handa dýr merkurinnar, og allskyns fugla undir himninum, þá lét hann þessar skepnur koma til mannsins, til ad vita, hvad hann kalladi þær; og hvad helst nafn, sem madurinn gaf, hverri lifandi skepnu, þad hid sama vard hennar nafn. 20. Og madurinn gaf nafn öllum fénadi og fuglum loptsins og allra handa dýrum á jördunni, sérhverju sitt nafn; en þar fannst engin medhjálp fyrir manninn eptir hans mynd. 21. Þá lét Gud Drottinn fastan svefn falla á manninn, og á medan hann svaf, tók hann eitt af hans rifjum, og fyllti aptur med holdi; 22. og Gud Drottinn myndadi konu af því rifbeini sem hann tók af manninum, og leiddi hana til hans. 23. Þá sagdi madurinn: þetta er bein af mínum beinum og hold af mínu holdi; þar fyrir skal hún karlinna kallast, af því hún er af karlmanni tekin. 24. Og þess vegna skal madurinn yfirgéfa fødur sinn og módur sína, og búa vid sína egin konu. Þau munu verda einn madur. 25. Og þau voru bædi nakin, madurinn og hans kona, og skömmudust sín ekki.

## 3. Kapítuli.

1.) Hjónin syndga. 2.) Fá dóm og líkn.

1.) 1. En Höggormurinn var slægari heldur enn öll önnur kvikindi á jördunni sem Gud Drottinn hafdi gjört; og hann mælti vid konuna: er þad satt ad Gud hafi sagt: þid skulud ekki eta af öllum trjánum í Aldingardinum? 2. Þá sagdi konan til Höggormsins: Vid etum af ávexti trjánna í Aldingardinum; 3. en um ávöxt þess trés sem stendur í midjum Aldingardinum, sagdi Gud: etid ekki þar af, og komid ekki vid þad- svo ad þid deyid ekki. 4. Þá sagdi Höggormurinn til konunnar: enganvegin munud þid deya, 5. heldur veit Gud þad, ad á hverjum þeim degi, sem þid etid þar af, þá munu ykkar augu opnast, og þid munud, sem gudir, þekkja gott og íllt; 6. en konan sá ad tréd var gott ad eta af, fagurt á ad líta og gyrnilegt til fródleiks; og hún tók af ávextinum og át, og hún gaf manni sínum líka, og hann át. 7. Þá upplukust beggja þeirra augu, og þau urdu þess vör, ad þau voru nakin, og þau festu saman fíkjuvidar blöd, og gjördu sér midtisskýlur.

2.) 8. Og sem þau heyrdu rödd Guds Drottins, sem fór um kríng í Aldingardinum í dags golunni, þá fól madurinn síg og kona hans fyrir augsýn Guds Drottins á milli

V. 8. J dags golunni: um kvöldid.

trjánna í Aldingardinum. 9. Og Gud Drott-
inn kalladi á manninn og sagdi vid hann:
hvar ertu? 10. Hann svaradi: eg heyrdi
þína rødd í Aldingardinum og vard hræddur;
því eg er nakinn, og faldi mig. 11. Og
Drottinn mælti: hver sagdi þér ad þú værir
nakinn? hefur þú etid af því tré sem eg bann-
adi þér ad eta af? 12. Þá svaradi madur-
inn: konan sem þú gafst mér til sambúdar,
hún gaf mér af trénu, og eg át. 13. Þá
sagdi Gud Drottinn til konunnar: því gjørdir
þú þad? konan svaradi: Høggormurinn sveik
mig, svo eg át. 14. Þá sagdi Gud Drottinn
til Høggormsins: Af því ad þú gjørdir þetta,
þá skalt þú vera bølvadur framar øllum fénadi
og framar øllum dýrum á mørkinni. Þú skalt
skrída á þínum kvidi og eta mold jardar alla
þína lífdaga. 15. Og fjandskap vil eg setja
milli þín og konunnar, milli þíns sædis og
hennar sædis; þad skal merja þitt høfud og
þú bita þess hæl. 16. Og vid konuna sagdi
Gud: mikla mun eg gjøra þjáníngu þína, þeg-
ar þú verdur ólétt; med sótt skaltu sæda þín
børn; til manns þíns skal þín laungun vera,
en hann skal drottna yfir þér. 17. Og til
mannsins sagdi hann: Af því þú hlýddir
rødd konu þinnar, og átst af því tré, sem eg
bannadi þér ad eta af, og sagdi: þú skalt ekki
eta af því, þá sé jørdin bølvud fyrir þína skuld,
med mædu skaltu þig af henni næra alla þína
lífdaga, 18. þyrna og þistla skal hún þér
bera, og þú skalt jardarinnar jurtir eta, 19.
í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauds neyta,
þángad til þú hverfur aptur til jardarinnar;
því þú ert mold og til moldar skaltu aptur
hverfa. 20. Og Adam nefndi konu sína:
Hevu; því hún er módir allra sem lifa. 21.
En Gud Drottinn gjørdi þeim Adam og konu
hans skinnføt, og lét þau klædast þeim. 22.
Og Gud Drottinn sagdi: sjá! madurinn er
ordinn sem einn af oss, svo hann þekkir gott
og íllt; 23. en svo hann ekki nú útrétti sína
hønd og taki af lífsins tré og eti, og lifi ei-
líflega. Þá lét Gud Drottinn hann í burt
úr Aldingardinum í Eden til ad erja jørdina,
af hverri hann var tekinn. 24. Og hann rak
Adam burt, og setti Kerubim fyrir austan Ed-
ens gard, med loga þess brugdna sverds, til
ad geyma veginn ad lífsins tré.

## 4. Kapítuli.

1.) Kain myrdir sinn bródur. 2.) Kains ættleggur. 3.) Set fædist.

1.) 1. Og Adam kénndi konu sinnar Evu,
og hún vard þúngud, og fæddi Kain, og mælti:
mann hefi eg fengid af Drottni. (49, 25.)
2. Og hún fæddi í annad sinn bródur hans
Abel. Og Abel vard fjárhyrdir, og Kain jard-
yrkjumadur. 3. Og þad skédi þá framlídu
stundir, ad Kain færdi Drottni fórn, gróda
jardarinnar; 4. en Abel kom og med af frum-
burdum sinnar hjardar, og af þeirra feiti. 5.
Og Drottinn leit til Abels og hans fórnar; en
til Kains og hans fórnar leit hann ekki; þá
reiddist Kain ákaflega og hans andlit vard
nidurlútt. 6. Þá sagdi Drottinn til Kains:
því reidist þú svo, og því ertu svo nidurlút-
ur? 7. Er ekki svo? Ef þú hefur rétt gjørt
(offrad gudrækilega) þá þarftu ei ad vera nid-
urlútur; en ef þú gjørir ekki rétt, þá liggur
syndin vid dyrnar, og lángar til ad støkkva á
þig, en drottna þú yfir henni! 8. Eptir þetta
kom Kain ad máli vid Abel bródur sinn, og
þad skédi, þá þeir voru á akri, ad Kain reis
á móti bródur sínum Abel og drap hann. 9.
Þá sagdi Drottinn vid Kain: hvar er Abel

V. 24. Nakid: brugdid sverd. Glampandi: sveipandi sverd.

bródir þinn? 10. Og hann mælti: það veit eg ekki; á eg að vakta (hann) bródur minn? Og hann sagði: hvad hefur þú gjørt? rødd þíns bródur blóðs hrópar til mín af jørdunni; 11. og sértu nú bølvadur á jørdunni, sem opnaði sinn munn til að taka á móti blóði bródur þíns af þinni hendi. 12. Þegar þú erjar jørðina skal hún hér eptir ekki gefa þér sinn gróða, landflótta og flakkandi skaltu vera á jørdunni. 13. Og Kain sagði til Drottins: mín synd er stærri enn svo, að eg géti hana borið! 14. sjá! þú hefir í dag rekið mig í útlegð, og eg verð að felast fyrir þínu augliti, og vera útlagi, á sífeldu flakki. Hver sem hittir mig mun drepa mig. 15. Og Drottinn sagði til hans: það skal ekki ské, hver sem drepur Kain, þess skal hefnt verða sjøfaldlega. Og Drottinn gaf Kain teikn, að enginn sem hitti hann skyldi hann drepa. 16. Og svo gékk Kain burt frá Drottins augliti, og bjó í landinu Nod (útlegð) fyrir austan Eden.

2.) 17. Og Kain kénndi sinnar konu, og hún varð ólétt, og fæddi Henok; og hann bygði stað, og kallaði nafn staðarins eptir nafni sonar síns: Hanok. 18. Og Hanoki fæddist Irad, og Irad gat Mahujael, og Mahujael gat Metusael og Metúsael gat Lamek. 19. Og Lamek tók sér tvær konur; hét ønnur Ada, en hin Silla. 20. Ada fæddi Jabal; sá hinn sami var faðir þeirra sem bjuggu í tjøldum og fjárhyrdara. 21. Og nafn bróður hans var Jubal; hann hinn sami var faðir allra sem fóru með hørpur og hljóðpípur. 22. Og Silla ól líka Tubalkain, sem smíðaði úr kopar og járni allslags tól, og systir Tubalkains, Naema. 23. En Lamek sagði við konur sínar Adu og Sillu: heyrið mín orð, þið Lameks konur! gefið gaum að mínu tali! sannarlega drep eg hvern mann sem særir mig, og hvert úngmenni sem meiðir mig. 24. Kains skyldi hefnt verða sjø sinnum, en Lameks sjø og sjøtíu sinnum.

3.) 25. Og Adam kénndi enn á ný sinnar konu, og hún ól son og kallaði hann Set; því nú hefir Guð, sagði hún, géfið mér afkvæmi, í stað Abels sem Kain drap. 26. En Set fæddist og sonur; hann var nefndur Enos. Um það leiti byrjuðu menn að ákalla nafn Drottins.

## 5. Kapítuli.

Ættartolur frá Adam til Nóa.

1. Þetta er Adams ættartolu saga. Þegar Guð skapaði manninn, svo gjørði hann manninn eptir Guðs líkingu. 2. Hann skóp þau mann og konu og blessaði þau, og þá hann skapaði þau, nefndi hann þau: menn. 3. Og Adam lifði hundrað og þrjátíu ár, þá gat hann son eptir sinni líking og mynd, og nefndi nafn hans: Set. 4. Og dagar Adams voru, eptir gétnað Sets, átta hundruð ár, og hann gat syni og dætur. 5. Og allir dagar Adams sem hann lifði, voru níu hundruð og þrjátíu ár. Þá dó hann. 6. Og Set var hundrað og fim ára gamall þá hann gat Enos; 7. eptir það lifði hann átta hundruð og sjø ár, og átti sonu og dætur. 8. Og allir dagar Sets voru: níu hundruð og tólf ár; og hann andaðist. 9. Og Enos var níutíu ára, þá hann gat Kenan, 10. og lifði eptir það átta hundruð og fimtán ár, og átti sonu og dætur; 11. svo að allur hans aldur varð: níu hundruð og fim ár, og hann andaðist. 12. Kenan var sjøtíu ára, þá hann gat Mahalalel; 13. og Kenan lifði eptir gétnað Mahalalels átta hundruð og fjørutíu ár, og átti sonu og dætur. 14. Og allir dagar Kenans urðu, níu hundruð og tíu ár; og hann andaðist. 15. Mahalalel var fim og sjøtíu ára, þá hann gat Jared. 16. Og Mahalalel lifði eptir gétn=

ad Jareds, átta hundrud og þrjátíu ár, og
átti sonu og dætur. 17. Og allur aldur Ma=
halalels vard átta hundrud níutíu og fim ár,
og hann andadist. 18. Og Jared var hundr=
ad sextíu og tveggja ára, þá hann gat Enok,
19. og Jared lifdi eptir þad hann gat Enok,
átta hundrud ár, og átti sonu og dætur. 20.
Og allir dagar Jareds voru: níu hundrud sex=
tíu og tvø ár; og hann andadist. 21. Og
Enok lifdi sextíu og fim ár, og þá gat hann
Metusala, 22. og eptir ad Enok gat Metusala,
gékk hann med Gudi, og átti sonu og dætur.
23. Og allur hans aldur vard þrjú hundrud
sextíu og fim ár. 24. Og Enok gékk med
Gudi, og var ekki framar (hér) því Gud tók
hann. 25. Metusala var hundrad áttatíu og
sjø ára, þá hann gat Lamek. 26. Og Metu=
sala lifdi eptir ad hann gat Lamek, sjø hundr=
ud áttatíu og tvø ár; og átti sonu og dæt=
ur, 27. svo ad allur hans aldur vard níu
hundrud sextíu og níu ár; og hann andadist.
28. Og Lamek var hundrad áttatíu og tvegg=
ja ára, þá hann gat son, og þennann son
kalladi hann Nóa og mælti: 29. þessi mun
hugga oss í vorri armædu og erfidi vorra
handa, á þeirri jørdu, sem Drottinn bølvadi.
30. Og Lamek lifdi eptir ad hann gat Nóa
fim hundrud níutíu og fim ár, og átti
sonu og dætur. 31. Og allur hans aldur
vard sjø hundrud sjøtíu og sjø ár; og hann
andadist. 32. Og Nói var fim hundrud ára
og gat: Sem, Kam og Jafet.

## 6. Kapítuli.

1.) Fjølgun mannanna. 2.) Þeirra ossi og spilling.
3.) Gud skipar ad byggja ørkina. 4.) Hótar flódi.

1.) 1. Og þad skédi, þá menn tóku ad fjølga
á jørdunni og þeim fæddust dætur, 2. þá sáu
synir Gudanna dætur mannanna, ad þær voru
vænar, og tóku sér konur medal þeirra, allar
sem þeim líkudu. 3. Þá sagdi Gud Drott=
inn: minn andi skal ekki eilíflega audvirdast í
manninum, því hann er hold; veri hans dag=
ar hundrad og tuttugu ár. 4. Á þeim sømu
døgum voru ofríkismenn á jørdunni; og ept=
ir ad synir Gudanna løgdust med dætrum mann=
anna, fæddu þær þeim syni, sem í fornøld
voru vídfrægar hetjur.

2.) 5. Og Drottinn sá ad illska mannanna
var mikil á jørdunni, og ad øll hugsan manns=
ins hjarta var vond alla daga. 6. Þá ydr=
adist Drottinn þess, ad hann hafdi skapad
manninn á jørdunni, og honum sárnadi þad í
hans hjarta. 7. Og hann sagdi: eg vil af=
má manninn sem eg skapadi af jørdunni: mann=
inn, dýrid, skridkvikindid og fugla himinsins;
því mig ydrar ad eg hefi skapad þetta 8.
En Nói fann nád í augum Drottins. 9. Þetta
er saga Nóa: Nói var madur réttlátur og
gudhræddur á sinni øld, hann lifdi gudræki=
lega. 10. Og Nói átti þrjá sonu: Sem,
Kam og Jafet. 11. Og jørdin var spillt í
augsýn Guds og full af ofríki. 12. Og Gud
leit á jørdina, og sjá! hún var spillt; því allt
hold hafdi fordjarfad sína vegu á jørdunni.

3.) 13. Þá mælti Gud vid Nóa: endir
alls holds er kominn fyrir minni augsýn,
því jørdin er full af þeirra ofríki; sjá!
eg vil fordjarfa þá ásamt med jørdunni.
14. Gjør þú þér ørk af grenivid, og láttu
í vera lítil hús, og bræd hana med biki, utan
og innan. 15. Og gjør þú hana svona: lengd
arkarinnar sé þrjú hundrud álnir, breidd hennar
fimtíu álnir og hæd hennar þrjátíu álnir.
16. Glugga skaltu gjøra á ørkina ad ofantil,
og hann sé ein alin á hæd; dyr skalt þú set=

V. 21. gékk med Gudi: lifdi gudrækilega. Hebr. 11, 5. V. 27. árid sem flódid kom, eptir lærdra útreikningi. V. 3. audvirdast. adrir: búa. 2, 7.

ja á arkarinnar sídu, og í henni séu þrjú lopt:
nedst, í midid og efst.
4.) 17. Því sjá! eg læt vatnsflód koma yfir
jørdina, til ad tortína øllu holdi undir himninum,
sem lífs andi er í; allt sem á jørdunni er, skal
deya. 18. En vid þig gjøri eg sáttmála, og þú
skalt gánga í ørkina, þú og þínir synir, og kona
þín og þínar sona konur, med þér. 19. Og þú
skalt láta í ørkina af øllum lifandi sképnum, tvent
af øllu; kallkyns og kvennkyns skal þad vera, svo
þad haldi lífi med þér; 20. af fuglum eptir
þeirra kyni, af fénadi eptir hans kyni, og af
øllum kvikindum jardarinnar, eptir þeirra kyni,
tvent af øllu skal til þín inngánga, svo þad
haldi lífi. 21. Og þú skalt taka þér nokkud
af allri ætilegri fædslu, og safna ad þér, ad
þad sé þér og þeim til næríngar. 22. Og
Nói gjørdi allt, eins og Gud baud honum.

## 7. Kapituli.

Syndaflódid.

1. Og Drottinn sagdi vid Nóa: gakk þú
og allt þitt hús í ørkina; því eg hefi séd
þig réttlátann fyrir minni augsýn, á þessari
øld. 2. Tak þú til þín af øllum hreinum dýr-
um, sjø og sjø, kallkyns og kvennkyns; en af
þeim dýrum sem ekki eru hrein, tvø og tvø,
kallkyns og kvennkyns. 3. Líka af fuglum
himinsins sjø og sjø, kallkyns og kvennkyns,
til ad vidhalda lífs stofni á allri jørdunni; 4.
því ad sjø døgum lidnum, mun eg láta rigna
á jørdina í fjørutíu daga og fjørutíu nætur,
og eg mun afmá sérhverja sképnu sem eg hefi
gjørt af allri jørdunni. 5. Og Nói gjørdi
allt eins og Drottinn baud honum. 6. En
Nói var sex hundrud ára gamall, þegar vatns-
flódid kom yfir jørdina. 7. Og Nói gékk í
ørkina og synir hans og kona hans og sona
konur hans, med honum, ádur enn vatnsflód-
id kom, 8. og (nokkud) af hreinum dýrum,
og af þeim dýrum sem ekki voru hrein, og af
fuglum og af øllum kvikindum jardarinnar;
9. tvent og tvent kom til Nóa í ørkina,
kallkyns og kvennkyns, eins og Gud hafdi
bodid Nóa.

10. Og þad skédi eptir sjø daga, þá var
flód vatna yfir jørdunni. 11. Þegar Nói
var sex hundrud ára, seytjándi dagurinn í þeim
ødrum mánudi, var sá dagur á hverjum opn-
udust allar uppsprettur ens mikla undirdjúps,
og gluggar himinsins lukust upp. 12. Og
yfir jørdina rigndi, fjørutíu daga og fjørutíu
nætur. 13. Á þeim sama degi gékk Nói og
synir hans, Sem, Kam og Jafet, og Nóa kona
og þrjár sona konur Nóa, med honum, í ørk-
ina og allar lifandi sképnur eptir þeirra kyni,
14. og allur fénadur eptir sínu kyni, og øll
kvikindi sem skrída á jørdunni eptir þeirra kyni,
og allir fuglar eptir þeirra kyni, allt fidrad allt
fleygt. 15. Og til Nóa kom í ørkina tvent
og tvent af øllu holdi, sem í var lífs andi.
16. Og þad sem kom kallkyns og kvennkyns,
af øllu holdi, gékk inn, eins og Gud baud
honum. Og Drottinn læsti eptir honum.

17. Og flódid var á jørdunni í 40 daga,
og vatnid óx og lypti ørkinni upp hátt yfir
jørdina. 18. Og vatnid fékk yfirhønd og magn-
adist ákaflega á jørdunni, en ørkin flaut á vatn-
inu. 19. Og vatnid vard mikid á jørdunni,
og øll þau háu fjøll fóru í kaf, sem eru und-
ir øllum himninum. 20. Fimmtán álnir gékk
vatnid upp yfir fjøllin, svo þau byrgdust, 21.
Þá dó allt hold sem kvikar á jørdunni, fugl-
ar, fénadur og dýr og ormar, sem þá skreid
á jørdunni og allir menn. 22. Allt sem hafdi
lifandi anda í sínum nøsum, allt á þurrlendinu,
þad dó. 23. Og svona var afmád sérhver
sképna, sem var á jørdunni, menn, fénadur,
ormar og fuglar himinsins. Þetta allt af-
mádist af jørdunni. Nói einn vard eptir og

þad sem med honum var í ørkinni. 24. Og vatnid var mikid á jørdunni í hundrad og fimmtíu daga.

## 8. Kapítuli.

1.) Flódinu linnir. 2.) Nói offrar.

1.) 1. Þá minntist Gud á Nóa, og øll dýr-in og allan fénadinn sem med honum var í ørkinni, og Gud lét vind fara yfir jørdina, og vatnid sjatnadi, 2. og uppsprettur undirdjúps-ins luktust aptur og gluggar himinsins, og regninu linnti af himninum. 3. Og vatn-id rénadi, því þad rann burt meir og meir, og þverradi, eptir hundrad og fimtíu daga. 4. Og ørkin nam stadar í sjøunda mánudi, á sey-tjánda degi mánadarins, á fjallinu Ararat. 5. Og vatnid var ad réna allt til hins 10da mán-adar; á fyrsta degi mánadarins sáust fjalla-tindarnir.

6. Og þad skédi eptir 40 daga ad Nói lauk upp glugga arkarinnar sem hann hafdi gjørt, 7. og lét út hrafn; hann flaug fram og aptur, þángad til vatnid þornadi á jørdunni. 8. Og hann sendi út frá sér dúfu, til ad vita hvert vatnid væri þverrad á jørdunni, 9. en dúfan fann ekki hvíldarstad fæti sínum og hvarf til hans aptur í ørkina; því ennú var vatn yfir allri jørdunni; og hann rétti út sína hønd, og tók hana til sín í ørkina. 10. Og hann beid enn adra sjø daga, og sendi svo dúfuna aptur úr ørkinni. 11. Þá kom dúfan til hans aptur undir kvøld, og sjá! hún hafdi vidsmjørsvidar laufblad ókvolad í nefinu. Þá sá Nói ad vatn-id var þverrad á jørdunni. 12. Og hann beid enn í sjø adra daga, og sendi svo frá sér dúfuna; en hún kom ekki til hans aptur. 13. Þegar Nói var 6 hundrud og eins árs, á fyrsta degi ens fyrsta mánadar, þá þornadi vatnid á jørdunni; og Nói tók þakid af ørk-inni, og litadist um, og sjá! jørdin var ordin þurr. 14. Á tuttugasta og sjøunda degi hins annars mánadar, var jørdin þurr.

2.) 15. Þá taladi Gud vid Nóa og mælti: 16. Gakk þú úr ørkinni, þú og kona þín og synir þínir og sona konur þínar med þér, 17. og láttu fara út med þér øll dýr sem med þér eru af øllu holdi, fugl og fénad og kvik-indi sem hrærast á jørdunni, ad þetta dreifist um jørdina, tímgist og fjølgi á jørdunni. 18. Svo gékk Nói út og synir hans, og kona hans, og sona konur hans med honum, 19. øll dýr, øll kvikindi, allir fuglar, allt sem bærist á jørd-unni; eptir sínu kyni, gékk hvad eitt út úr ørkinni.

20. Nói byggdi þá Drottni altari, og tók af øllum hreinum dýrum og hreinum fuglum og offradi brennifórn á altarinu. 21. Og Drottinn luktadi þægilegann ylm og sagdi í sínu hjarta: eg vil nú ei framar bølva jørdunni aptur fyrir mannsins skuld; því hugsanir mannsins hjarta eru vondar frá barnæsku, og eg mun ei framar deyda allt sem lífir, eins og eg gjørdi nú. 22. Alla daga jardarinnar skal ei vanta vor og haust, kulda og hita, sumar og vetur, dag og nótt.

## 9. Kapítuli.

1.) Sáttmáls boginn. 2.) Vínyrkja og hennar afleidíngar.

1.) 1. Þá blessadi Gud Nóa og sonu hans, og sagdi til þeirra: verid frjófsamir, margfald-ist og uppfyllid jørdina. 2. Ydar ótti og ógnan skal vera yfir øllum dýrum jardarinnar, yfir øllum fuglum himinsins, og øllu sem hrærist á jørdunni, og yfir øllum fiskum sjáf-arins, á ydar vald er þetta géfid; 3. allt sem hrærist og lifir, skal vera ydar fæda; eins og grænar jurtir, hefi eg géfid ydur allt þetta, 4. einasta skulud þér ekki eta holdid med lífinu,

V. 4. Í April mánudi halda sumir lærdir. V. 4. 5 Mósb. 12, 23.

med blódinu; 5. og einaſta ydar blóds, ſem ydar líf er í, mun eg hefna. Af hendi hverrar ſképnu mun eg þeſs krefja, og af hendi mannsins; af hans bródur mun eg taka hefnd fyrir mannsins líf. 6. Sá ſem úthellir mannsins blódi, hans blódi ſkal verda úthellt af manninum; því Gud gjørdi manninn eptir ſinni mynd. 7. En ávaxtiſt og margfaldiſt, og útdreifiſt um jørdina og fjølgid á henni. 8. Og Gud taladi vid Nóa og ſyni hans med honum: 9. ſjá! eg gjøri ſáttmála vid ydur, og vid ydar nidja eptir ydur, 10. og vid allar lifandi ſképnur ſem med ydur eru, vid fénadinn og øll dýr jardarinnar, hjá ydur, ſem útgeingu úr ørkinni, af øllum dýrum jardarinnar. 11. Þetta er minn ſáttmáli vid ydur: framar mun ekki eydileggjaſt allt hold af vatnsflódi, og framar mun ekki flód koma til ad eydileggja jørdina. 12. Og Gud ſagdi: þetta er merki ſáttmálans ſem eg gjøri milli mín og ydar og allra lifandi ſképna ſem hjá ydur eru til eilífrar tídar: 13. Minn boga ſet eg í ſkýin, ad hann ſé merki ſáttmálans milli mín og jardarinnar. 14. Og þad mun ſké, þá eg ſamandreg ſký yfir jørdina, og minn bogi ſjeſt í ſkýunum, 15. ſvo mun eg minnaſt ſáttmálans milli mín og ydar, og allra lifandi ſálna í øllu holdi, ad hér eptir ſkal ekki vatnid verda ad flódi, til ad eydileggja allt hold. 16. Og ſtandi boginn í ſkýunum, ſvo horfi eg á hann til endurminníngar þeſs eilífa ſáttmála milli Guds og allra lifandi ſálna í øllu holdi ſem er á jørdunni. 17. Og Gud ſagdi vid Nóa: þetta er merki ſáttmálans, ſem eg gjøri milli mín og alls holds, ſem er á jørdunni. 18. Og þeir ſynir Nóa ſem geingu úr ørkinni voru þeir: Sem, Kam og Jafet, en Kam var fadir Kanaans; 19. þeſsir eru þeir þrír Nóa ſynir, og nidjar þeirra útdreifduſt um alla jørdina.

2.) 20. En Nói fór ad yrkja jørdina, og plantadi víngard. 21. Og hann drakk af víninu, og vard drukkinn, og lá ber í ſínu tjaldi. 22. Og Kam fadir Kanaans ſá nekt fødur ſíns, og ſagdi bádum ſínum brædrum frá, ſem úti voru. 23. Þá tóku þeir Sem og Jafet fat, og løgdu ſér á herdar og geingu aptur á bak og huldu nekt fødur ſíns, en andlit þeirra ſnéru frá, ſvo þeir ſáu ekki nekt fødur ſíns. 24. En ſem Nói vaknadi af ølværdinni, fékk hann ad vita hvad ſonur hans hinn ýngri hafdi honum gjørt. 25. Þá mælti hann: bølvadur ſé Kanaan, þræla þræll ſé hann ſínna brædra, 26. og hann ſagdi: lofadur ſé Drottinn Sems Gud, og Kanaan ſé hans þræll! 27. Gud rýmki til fyrir Jafet, og láti hann búa á nafnkéndum ſtad og Kanaan ſé hans þræll. 28. Og Nói lifdi eptir flódid þrjú hundrud og fimtíu ár, 29. og allir Nóa dagar voru níu hundrud og fimtíu ár. Þá dó hann.

## 10. Kapituli.

Ætt og nidjar Nóa ſona.

1. Þetta er ættartal Nóa ſona, Sems, Kams og Jafets. Þeim fædduſt ſynir eptir flódid. 2. Synir Jafets eru: Gomer, Magog og Madai og Javan og Tubal og Meſek og Tiras. 3. Og ſynir Gomers: Aſkenas og Rifat og Tógorma. 4. og ſynir Javans: Eliſa og Tarſis, Kitim og Dodanim, 5. frá þeſsum útkviſluduſt eyanna þjódir, ad løndum, túngumálum og ættum hver frá annari innbyrdis adgreindar. 6. Og ſynir Kams: Kuſk og Miſraim og Put og Kanaan. 7. Og ſynir Kuſks: Meroe og Hevila og Sabta og Raema og Sabtka. Og ſynir Raemas: Sabea og Dedan. 8. Og Kuſk gat Nimrod, ſá hinn ſami fór ad verda voldugur á jørdunni, 9. ſá hinn ſami var mikill veidimadur fyrir Drottni. Því er máltækid: voldugur veidimadur

V. 26. adrir: í Sems tjaldbúdum.

fyrir Drottni, eins og Nimrod. 10. Og Babel var upphaf hans ríkis, Erek og Akkad og Kalne í landinu Sinear. 11. Frá þessu landi kom Assur, og bygdi Ninive og Rehobot, Ir og Kala; 12. og Resen milli Ninive og Kala; þad er stóri stadurinn. 13. Og Misraim gat Luda og Anamu og Lekaba og Naftua, 14. og Patrusim og Kasluka (þadan eru komnir Filistar) og Kaftora. 15. Og Kanaan gat Sidon sinn frumgétníng, og Het, 16. og Jebúsi og Amori og Gergesi, 17. og Hivi og Arki og Sini, 18. og Arradi og Semari og Hamati og eptir þad útdreifdust ættir Kananítanna. 19. Landamerki Kananítanna eru: frá Sidon um Gerar allt til Gasa, þá er stefnan til Sódóma og Gomorra og Adama og Seboim, allt til Lesa. 20. Þetta eru synir Kams eptir þeirra ættum, eptir þeirra túngumálum, í þeirra løndum, í þeirra þjódum. 21. Og Sem átti líka syni, fadir allra Ebers sona, þeim eldra bródur Jafets. 22. Synir Sems eru: Elam og Assur og Arfaksad og Lud og Aram. 23. Og synir Arams: Us og Hul og Geter og Mas. 24. Og Arfaksad gat Sala, og Sala gat Eber. 25. Og Eber voru bornir tveir synir: nafn annars Peleg, því á hans døgum var jørdunni skipt; hinn bródirinn hét Jaktan. 26. Og Jaktan gat Almodad og Salep, Hasarmavet og Jara. 27. Hadóram og Usal og Dikla. 28. Og Obal og Abimael og Seba. 29. Og Ofír og Hevila og Jobab. Þessir eru allir Jaktans synir. 30. Og þeirra bústadur var: frá Mesa til Sefar, fjallsins austur frá. 31. Þetta eru synir Sems, eptir þeirra ættkvíslum og túngumálum í þeirra løndum, eptir þeirra þjódum. 32. Þetta er ættartal Nóa sona, eptir þeirra ættkvíslum, í þeirra þjódum, og frá þeim útdreifdust þjódirnar um jørdina eptir flódid.

V. 4. Minnismerki: adrir nafn.

## 11. Kapituli.

1.) Turninn mikli. 2.) Túngur blandast. 3.) Sems ættartal.

1. 1. Og øll jørdin hafdi eitt mál og eitt tal. 2. Og þad skédi, þá þeir komu ad austan, þá fundu þeir mikla velli í landinu Sinear og tóku sér þar bústad. 3. Þá søgdu þeir hver vid annann: vel og gott! vér skulum elta tígulsteina og herda í eldi, og tígulsteinarnir urdu þeim ad grjóti, og jardarlím ad kalki. 4. Og þeir søgdu: hananú! vér viljum byggja oss borg og turn sem taki upp í himininn, vér skulum gjøra oss minnismerki, ad vér ekki tvístrumst um alla jørdina. 5. Þá kom Drottinn nidur ad sjá borgina og turninn, sem mannanna synir (mennirnir) bygdu. 6. Og Drottinn mælti: þetta er ein þjód sem hefir eina túngu, og þetta hafa þeir byrjad ad gjøra; og nú verdur þeim ekkért fyrirmunad ad gjøra sem þeir hugsa sér.

2.) 7. Vel og gott! vér viljum nidurstíga og villa þar þeirra túngumál, svo enginn skilji annann. 8. Og Drottinn tvístradi þeim þadan út um alla jørdina og þeir hættu ad byggja borgina. 9. Því heitir hún Babel, ad þar villti Drottinn túngumál allrar jardarinnar, og þadan sundur dreifdi hann þeim um alla jørdina.

3.) 10. Þetta er ættartal Sems. Sem var hundrad ára gamall þá hann gat Arfaksad, tveim árum eptir flódid. 11. Og Sem lifdi eptir ad hann gat Arfaksad 5 hundrud ár, og átti sonu og dætur. 12. Og Arfaksad hafdi lifad 35 ár þá hann gat Sala. 13. Og Arfaksad lifdi, eptir ad hann gat Sala, 4 hundrud og þrjú ár, og átti syni og dætur. 14. Og Sala var 30 ára gamall þegar hann gat Eber, 15. og lifdi eptir gétnad Ebers 4 hundrud og þrjú ár; og átti syni og dætur.

16. Og Eber var 34 ára þá hann gat Peleg,
17. og þar eptir lifdi hann 4 hundrud og
þrjátíu ár; og átti syni og dætur. 18. Og
Peleg lifdi þrjátíu ár, þá gat hann Regu;
19. og Peleg lifdi eptir ad hann gat Regu
tvø hundrud og níu ár, og átti syni og dæt-
ur. 20. Og Regu var 32ja ára þá hann
gat Serug. 21. Og Regu lifdi, eptir ad hann
gat Serug, tvø hundrud og sjø ár, og átti
syni og dætur. 22. Og Serug var 30 ára þá
hann gat Nahor. 23. Og Serug lifdi, eptir
Nahors gétnad, tvø hundrud ár, og átti syni
og dætur. 24. Og Nahor var tuttugu og níu
ára þá hann gat Tara; 25. Og Nahor
lifdi eptir ad hann gat Tara, hundrad og nít-
ján ár, og átti syni og dætur, 26. og Tara
lifdi 70 ár, þá gat hann Abram, Nahor og
Haran. 27. Og þetta er saga Taras: Tara
gat Abram, Nahor og Haran, og Haran gat
Lot, 28. og Haran dó á undan Tara fødur
sínum, í sínu fødurlandi, í Ur í Kaldea. 29.
Og Abram og Nahor tóku sér konur; Abrams
kona hét Sarai, en Nahors kona Milka, dóttir
Harans, fødur Milku, fødur Isku; en Sarai
var óbyrja, hún átti eingin børn. 31. Þá
tók Tara Abram sínn son, og Lot Haransson,
sonar son sínn, og Sarai sína teingdadóttur,
konu Abrams, sonar síns, og lagdi á stad med
þau frá Ur í Kaldeu, áleidis til Kanaans lands;
og þau komust til Haran og settust þar ad.
32. Og dagar Taras voru tvø hundrud og
fim ár. Þá dó Tara í Haran.

## 12. Kapítuli.

1.) Abram og Lot koma til Kanaan. 2.) Abram kémur til Egyptalands; segir Sarai sína systir.

1.) 1. Og Drottinn sagdi til Abrams: far
þú burt úr þínu landi, og frá þínu heimkynni,
og úr þíns fødurs húsi, til þess lands sem eg
mun vísa þér á. 2. Og eg mun gjøra þig ad
mikilli þjód og blessa þig, og gjøra nafn þitt
mikid, og þú skalt vera blessan. 3. Og eg mun
blessa þá, sem þig blessa, og bølva þeim sem
þér bølva, og af þér skulu allar ættkvíslir jard-
arinnar blessan hljóta. 4. Þá lagdi Abram
á stad, sem Drottinn hafdi sagt honum, og
Lot med honum. En þá var Abram 75 ára
gamall er hann fór úr Haran. 5. Og Abram
tók Sarai konu sína og Lot bródurson sínn og
alla fjárhluti, sem þeir høfdu eignast, og þá
þræla sem þeir høfdu feingid, í Haran. Og
þeir løgdu á stad og héldu til Kanaans lands,
og þeir komu til Kanaans lands. 6. Og Abr-
am fór um landid, allt til stadarins Sikem til
lundsins Mores; en þá vóru Kananítar í land-
inu. 7. Nú byrtist Drottinn Abram og sagdi
til hans: þínum nidjum vil eg géfa þetta land.
Og hann bygdi Drottni altari þar sem hann
hafdi byrtst honum. 8. Eptir þetta tók hann
sig upp þadan, og fluttist til fjallanna fyrir
austan Betel, og setti þar tjald sitt, svo ad
Betel var fyrir vestan, en Ai fyrir austan; og
hann bygdi þar Drottni altari og ákalladi nafn
Drottins. 9. Og Abram færdi sig smátt og
smátt sudureptir.

2.) 10. En þar gjørdist húngur í landinu;
þá fór Abram til Egyptalands, til ad stadnæm-
ast þar, því í landinu (Kanaan) var mikid hall-
æri. 11. Og þad skédi, þá hann á ferdinni
nálgadist Egyptaland, ad hann sagdi vid konu
sína Sarai: heyrdu! eg veit ad þú ert mikid
fríd kona sýnum, 12. þad mun því fara svo,
þegar Egyptskir sjá þig, þá munu þeir segja:
þetta er hans kona; svo drepa þeir mig, en
láta þig lifa. 13. Segdu því, ad þú sért
mín systir, ad mér verdi þad ad láni, og ad
eg meigi halda lífi þín vegna. 14. Og þad
skédi, þá Abram kom til Egyptalands, sáu
Egyptskir konuna, ad hún var mjøg fríd. 15.
Og høfdíngjar Kóngsins sáu hana, og settu

á hana mikid hól fyrir Konúngi; og konan
var tekin í Kóngsins hús. 16. Og Kóngur
sýndi Abram rausn, hennar vegna, svo hann
eignadist saudi, naut og asna, þræla og ambátt-
ir og øsnur og úlfalda. 17. En Drottinn
plágadi Kónginn og hans hús med mikilli
plágu, vegna Sarai, konu Abrams. 18. Þá
kalladi Kóngur, Abram! og mælti: því hefur
þú gjørt mér þetta? því sagdir þú mér ekki
ad hún væri þín kona? 19. því sagdir þú:
hún er mín systir, svo eg tók hana mér fyrir
konu? og sjá nú! þarna er þín kona, tak þú
hana og far þú burt. 20. Og Kóngur gaf
skipun sínum mønnum honum vidvíkjandi, og
þeir fóru med hann burt og hans konu og
allt sem hann átti.

## 13. Kapítuli.

Abram og Lot skilja.

1. Þannig fór Abram úr Egyptalandi,
hann, og kona hans med allt, sem hann átti,
og Lot med honum, sudur á vid. 2. Og Abr-
am var stóraudugur af kvikfé, og líka af gulli
og silfri. 3. Og hann flutti sig sunnan ad
smátt og smátt, allt til Betel, til þess stad-
ar hvar tjald hans hafdi ádur verid, milli
Betel og Ai; 4. þar sem hann ádur hafdi
byggt altarid. Og Abram ákalladi, á þessum
stad, Drottins nafn.

5. En Lot, sem fór med Abram, átti og
naut og saudi og tjøld; 6. og landid bar þá
ekki báda, svo þeir gætu saman verid, og þeirra
fjárafli var mikill, svo þeir gátu ei saman
búid. 7. Og þar vard sundurþykkja milli
Abrams hyrdara og Lots hyrdara, en Kan-
anitar og Feresítar bjuggu þá í landinu, 8. þá
mælti Abram vid Lot: heyrdu! eingin misklíd
sé milli mín og þín, ekki heldur milli minna
og þinna hyrdara, því vid erum brædur (ná-
skyldir). 9. Stendur þér ekki allt landid op-
id? skil þig því vid mig! viljir þú til vinstri,
þá fer eg til hægri handar; og viljir þú til
hægri, þá fer eg til vinstri. 10. Þá upphóf
Lot sín augu, og leit allt landid í kríngum
Jórdan, ad þad var vatnsríkt (ádur enn Drott-
inn eydilagdi Sódóma og Gomorra) eins og
aldingardur Drottins, eins og Egyptaland, allt
til Soar. 11. Og Lot kaus sér allt þetta
land hjá Jórdan, og flutti sig austurávid, og
þannig skildust þeir ad. 12. Abram bjó í
Kanaanslandi, og Lot bjó í stødunum þessa
hérads, og færdi tjald sitt allt til Sódóma.
13. En fólkid í Sódóma var vondt, og syndg-
adi mjøg móti Drottni.

14. Og eptir ad Lot var farinn burt frá
Abram, sagdi Drottinn vid hann: lypt þú upp
þínum augum, og litast um, frá þeim stad
sem þú ert á, til nordurs, sudurs, austurs og
vesturs; 15. því allt landid, sem þú sjer, mun
eg géfa þér og þínum nidjum ad eilífu; 16.
og eg gjøri nidja þína (marga) sem duft jard-
ar, géti nokkur talid duft jardarinnar, svo
skulu nidjar þínir verda taldir. 17. Tak þig
nú upp, og flyt þig um landid, eptir þess
leingd og eptir þess breidd; því þér mun eg
géfa þad. 18. Og Abram setti upp tjald sitt
og fór og bjó í Mamreslundi, hjá Hebron,
og bygdi Drottni þar altari.

## 14. Kapítuli.

1.) Abram frelsar Lot. 2.) Melkísedek blessar Abram.

1.) 1. Og þad skédi á døgum Amrafels,
Kóngs í Sinear, Arioks Kóngs í Elassar, Ke-
dolaomers Kóngs í Elam, og Tideals, heid-
íngja (Galíleu) Kóngs, 2. ad þeir herjudu á
Bera Kóng í Sódóma og á Birsa Kóng í
Gomorra, Sineab, Kóng í Adama og Seme-
ber Kóng í Seboim, og Kónginn í Bela, þad er:
Soar. 3. Allir þessir hittust í dalnum Siddim,
sem nú heitir salti sjór (dauda hafid). 4. Í

12 ár høfdu þeir verid lydskildir Kónginum, Kedolaomer; en féllu frá honum á því þrett-ánda ári. 5. Og á 14da ári kom Kedolaomer, og þeir Konúngar sem med honum voru, og slóu Refeana í Astarot-Karnaim, og Susítana í Ham, og Emitana í Save-Kirjataim; 6. og Horea á þeirra fjalli Seir, til lundsins Faran, sem er í nánd vid eydimørkina. 7. Sídan snéru þeir þadan og komu til uppsprettunnar Mispat, þad er: Kades, og fóru herskildi yfir land Amalekita og Amorita, sem bjuggu í Hasesson-Tamar.

8. Þá løgdu á stad, Kóngurinn í Sódóma og Kóngurinn í Gomorra, og Kóngurinn í Adama, og Kóngurinn í Seboim og Kóngurinn í Bela, sem nú kallast Soar; og þeir bjuggust til bardaga í dalnum Siddim, 9. móti Kedorlaomer, Kónginum í Elam og Tideal heidíngja Kóngi, og Amrafel, Kóngi í Sinear, og Ariok Kóngi í Elasar, fjórir Kóngar móti fim. 10. En í dalnum Siddim voru margar leirgrafir. En Kóngurinn af Sódóma og Gomorra voru reknir á flótta, og þar féllu þeir, og hinir flýdu til fjalla. 11. Þá tóku hinir alla fjárhluti sem voru í Sódóma og Gomorra og øll matvæli og fóru svo. 12. Þeir tóku líka Lot og hans fjárhluti, bródurson Abrams og løgdu á stad; en hann átti heima í Sódóma.

13. Þá kom einn, sem undan hafdi komist, og sagdi Abram þeim Hebreska frá, sem þá bjó í lundinum Mamres, Amoritans, bródir Eskols og Aners, sem voru sáttmála bundnir vid Abram. 14. En sem Abram frétti, ad bródir hans var hertekinn, vopnadi hann 318 æfda menn, fædda í hans húsi, og fór eptir þeim allt til Dan. 15. Þar skipti hann (lidi sínu) og yfirféll sína óvini, á náttarþeli, hann og hans lidsmenn, og ráku þá á flótta og eltu þá allt til Hoba, sem er vinstrameigin vid Damaskus. 16. Og snéru heimleidis med alla fjárhlutina, og líka med bródurson sinn Lot, og flutti til baka hans fjárhluti, einnig konurnar og fólkid. 17. En sem hann kom heim úr þessum bardaga vid Kónginn Kedorlaomer, og þá Konúnga sem med honum voru í dalnum Save, þad er nú Kóngadalurinn, gékk Kóngurinn af Sódóma út á móti honum.

2.) 18. Og Melkisedek Kóngur í Salem kom med braud og vín (en hann var prestur Guds ens ædsta), 19. og blessadi hann og sagdi: blessadur sé Abram af Gudi hinum ædsta sem skapadi himin og jørd! 20. Og lofadur veri Gud sá ædsti sem gaf þína óvini í þína hønd! Og hann gaf (Abram) honum tíund af øllu (Ebr. 7, 1.) 21. Og Kóngurinn í Sódóma sagdi vid Abram: géf mér fólkid, en tak þú fjárhlutina! 22. Þá mælti Abram vid Kónginn í Sódóma: eg upplypti mínum høndum (sver) vid Drottinn þann ædsta Gud, skapara himins og jardar, 23. ad eg tek hverki þrád né skóþveing af øllu sem þér tilheyrir, svo þú skalt ekki segja: eg hefi audgad Abram, 24. nema þad sem þeir úngu menn hafa neytt, og hlutdeild þeirra manna sem med mér fóru, Aners, Eskols og Mamres, þeir meiga taka sinn part.

V. 7. dóma uppspretta eiginlega. 4. Mósb. 20, 12.

## 15. Kapítuli.

Abram fær fyrirheit um erfíngja.

1. Eptir þessa daga skédi ord Drottins til Abrams í sýn, og mælti: óttast þú ekki, Abram! eg er þinn skjøldur og mjøg mikil laun. 2. Og Abram mælti: Herra minn, Drottinn! hvad ætlar þú ad géfa mér? fari eg hédan barnlaus, verdur Eleasar frá Damaskus eigandi míns húss. 3. Og hann mælti (enframar): sjá! þú hefir mér ekkért afkvæmi géfid,

og sonur míns húss verdur minn erfíngi. 4.
Og sjá! ord Drottins skédi til hans og mælti:
Ekki skal hann vera þinn erfíngi, heldur sá
sem af þér mun getinn verda, hann mun erfa
þig. 5. Og hann leiddi hann út og mælti:
skoda þú himininn og tel þú stjørnurnar! ef
þú gétur talid þær. Og hann sagdi til hans:
svo (margt) skal þitt afkvæmi vera. 6. Og
hann trúdi Drottni, og hann reiknadi honum
þad til réttlætis. 7. Og hann sagdi til hans:
Eg em Drottinn sem útleiddi þig frá Ur í
Kaldea, til þess ad géfa þér þetta land til
eignar. 8. Og hann mælti: Herra, Drott-
inn! Hvar af gét eg vitad, ad eg muni þad
eignast? 9. Og hann mælti til hans: færdu
mér þrévetra kú og þrévetra geit og þrévetran hrút,
og turtildúfu og únga dúfu. 10. Og hann
færdi honum allt þetta, og skipti því í tvo
jafna hluti, og lagdi hvern hlutinn gégnt ødr-
um; en fuglunum skipti hann ekki. 11. Og
hræfuglar flugu ad (ætinu), en Abram fældi
þá burt. (Jer. 34, 18. 19). 12. En er sól-
in var ad gánga undir, féll þúngur svefnhøgvi
yfir Abram, og þá, ótta miklum, og mirkri sló
yfir hann. 13. Þá sagdi hann (Drottinn)
til Abrams: vita skaltu fyrir víst, ad þinn
ættleggur mun verda framandi í því landi,
sem hann á ekki; þar munu menn þjá hann og
plága í 400 ár; 14. en eg mun líka straffa
þá þjód sem þeir verda ad þjóna, og þar ept-
ir skulu þeir fara þadan med mikil audæfi.
15. En þú skalt koma í fridi til þinna fedra
og þú skalt verda jardadur í gódri elli. 16.
Þeir munu koma híngad aptur ad lidnum fjór-
um manns øldrum, því ránglæti Amóritanna,
er enn ekki komid á hæstu troppu. 17. Og
sem sólin var geingin undir og dimmt var
ordid: sjá! þá fór reykur sem úr ofni, og
eldslogi, um þessi stikki. 18. Á þeim deigi
gjørdi Drottinn sáttmála vid Abram og mælti:
þínu afkvæmi hefi eg géfid þetta land, frá
Egyptalands ánni, til árinnar hinnar miklu til
Frat; 19. land Kenítanna og Kenesítanna og
Kadmonitanna, 20. og Hetitanna og Feresít-
anna og Refitanna, 21. og Amóritanna og
Kananitanna og Gergesítanna og Jebusítanna.

V. 13. Post: gb. 7, 6. 7.

## 16. Kapituli.

Hagar fædir Ismael.

1. En Saraí kona Abrams ól honum ekki
børn, hún hafdi egyptska þernu, sem hét Hag-
ar. 2. Og Sarai sagdi til Abrams: heyrdu
nú! Drottinn hefir varnad mér barngétnadar,
leggst þú nú med minni þernu, ské má, ad mér
verdi þad hagur; og Abram hlýddi ordum
Sarai. 3. Svo tók Sarai, Abrams kona,
Hagar sína þernu, þá egyptsku, eptir ad þau
høfdu búid 10 ár í Kanaans landi, og gaf
manni sínum, Abram, hana fyrir konu. 4.
Og hann lagdist med Hagar og hún vard ó-
létt; en er hún vissi ad hún var med barni,
fyrirleit hún húsmódur sína. 5. Þá sagdi
Sarai til Abrams: sá óréttur, sem eg líd,
bytnar á þér! eg gaf þér þernu mína í fadm,
hún sjer ad hún hefur feingid gétnad, og eg
verd fyrirlitin af henni. Drottinn dæmi milli
mín og þín! 6. Og Abram sagdi til Sarai:
heyrdu! þín þerna er í þinni hendi, gjør þú
vid hana þad sem þér gott þykir. Þá þjádi
Sarai hana, svo hún flúdi í burt. 7. Þá
fann Drottins Eingill hana hjá vatnslind í
eydimørkunni, hjá lindinni á veginum til Súr.
8. Og hann mælti: Hagar, þerna Sarai!
hvadan kémur þú og hvert ætlar þú ad fara?
Og hún mælti: eg flý frá augum Sarai, hús-
módur minnar. Og Eingill Drottins sagdi
til hennar: hverf þú heim aptur til húsmódur
þinnar, og audmýktu þig undir hennar hønd.

10. Og Eingill Drottins sagdi til hennar: eg mun margfalda þitt afkvæmi, ad þad verdi ei talid fyrir fjølda sakir. 11. Og Eingill Drottins sagdi til hennar: sjá! þú ert þúngud, og munt son fæda, hans nafn skaltu kalla Ísmael (Gud heyrir) því heyrt hefur Drottinn þína mædu. 12. Hann mun verda ólmur madur, hans hønd mun vera móti hverjum manni, og hvers manns hønd móti honum; og hann mun búa fyrir austan alla sína brædur. 13. Og hún kalladi nafn Drottins sem vid hana taladi: þú ert sjónarinnar Gud; því hún sagdi: sannarlega hefi eg hér sjed þann sem sjer mig hér eptir. 14. Þess vegna heitir lindin: brunnur þeirrar lifandi sjónar; sjá! hún er á milli Kades og Bered. 15. Og Hagar fæddi Abram son, og Abram nefndi nafn sonar síns, sem Hagar fæddi honum, Ísmael. 16. En Abram var 86 ára gamall, þegar Hagar ól honum Ísmael.

## 17. Kapítuli.

1.) Abrams nafn er leingt. 2.) Umskurn bodin. 3.) Ísaak fyrir heitinn. 4.) Abraham umsker sitt heimilis fólk.

1.) 1. Og þegar Abram var 99 ára gamall, byrtist Drottinn honum og sagdi: eg em sá almáttugi Gud, gakk þú fyrir mér og vertu algjør. 2. Og eg vil gjøra sáttmála milli mín og þín, og margfalda þig mjøg. 3. Þá féll Abram fram á sína ásjónu, og Gud taladi vid hann og sagdi: 4. sjá! eg hefi gjørt vid þig sáttmála, og þú skalt verda fadir margra þjóda. 5. Og nú skal ei nafn þitt leingur vera Abram, heldur skalt þú heita Abraham; því eg hefi gjørt þig ad fødur margra þjóda. 6. Og eg gjøri þig mikid frjóssamann, og gjøri þig ad þjódum; af þér skulu og Kóngar koma. 7. Og eg gjøri sáttmála milli mín og þín og þinna afkomenda eptir þig, frá einum ættlid til annars, eilífann sáttmála, ég skal vera þinn Gud, og þinna nidja eptir þig. 8. Og eg gef þér og þínum nidjum eptir þig, þad land sem þú býr nú í, allt Kanaans land til eilífrar eignar, og skal vera þeirra Gud.

2.) 9. Og Gud sagdi til Abrahams: haldtu minn sáttmála! þú og þínir nidjar eptir þig, frá einum ættlid til annars. 10. Þad er minn sáttmáli, sem þér skulud halda milli mín og ydar, og þinna nidja eptir þig: allt karlkyn hjá ydur skal umskérast; 11. þér skulud umskéra yfirhúd ydvars holds, þad sé merki sáttmálans milli mín og ydar, 12. á áttunda degi skal umskérast hvert og eitt sveinbarn heima fædt af ydar ættum, líka ad keypt, hver einn sonur þess útlenda, sem ei er af þinni ætt; 13. hver og einn í þínu húsi fæddur, og af þér verdi keyptur skal umskérast, og svo sé minn sáttmáli á ydar holdi sem eilífur sáttmáli. 14. Sá óumskorni sem ekki er umskorinn á holdi sinnar forhúdar, hefur rofid minn sáttmála, og hans sál skal verda upprætt frá hans fólki.

3.) 15. Og Drottinn taladi í annad sinn vid Abraham og mælti: Sarai kona þín, skal ei leingur Sarai heita: hennar nafn sé: Sara. 16. Og eg blessa hana, og med henni mun eg líka gefa þér son; eg blessa hana, og hún skal verda ad þjódum, þjóda Kóngar skulu af henni koma. 17. Þá féll Abraham fram á sína ásjónu, og hló, og sagdi í huga sínum: mun hundrad ára gamall madur eiga børn, og mun Sara, nírœd, ala barn? 18. Og Abraham sagdi til Guds: eg vildi Ísmael mætti lifa fyrir þinni augsýn! 19. Og Gud mælti: vissulega skal Sara kona þín fæda þér son, og þú skalt kalla hans nafn Ísaak (Hlátur) og eg mun gjøra sáttmála vid hann, eilífann sáttmála vid hans nidja eptir hann. 20. Og hvad Ísmaeli vidvíkur, þá sjá! eg hefi bænheyrt þig, eg blessa hann, og gjøri hann frjóssamann og margfalda hann mjøg; 12 høfdíngjar skulu af

honum koma, og eg gjøri hann ad mikilli
þjód. 21. En sáttmála mun eg gjøra vid
Ísaak, sem Sara mun fæda þér í þetta mund
á ødru ári. 22. Og þegar hann hafdi end-
ad tal sitt vid hann, sté Drottinn upp frá
Abraham.

4. 23. Þá tók Abraham son sinn Ísmael,
og alla sem fæddir voru í hans húsi, og alla
sem af honum voru verdi keyptir, allt kallkyn
manna í sínu húsi, og umskar yfirhúd þeirra
holds, á þeim sama degi, eins og Drottinn
hafdi sagt honum. 24. En Abraham var 99
ára gamall þá hann umskar yfirhúd síns holds,
25. en Ísmael sonur hans var 13 ára þá
hann var umskorinn. 26. Á sama degi voru
þeir umskornir Abraham og Ísmael hans son;
27. og allir hans heima menn, heima fæddir
og med verdi keyptir, synir útlendra manna,
voru umskornir med honum *).

## 18. Kapítuli.

1.) Sonur á ný heitinn Abraham. 2.) Einglar boda honum Sódómu eydileggíng.

1.) 1. Og Drottinn birtist honum í Mamres
lundi, þá hann sat í sínum tjalddyrum, um
hádeigis bilid. 2. Og hann hóf upp sín augu,
og litadist um, og sjá! þrír menn stódu frammi
fyrir honum; og er hann sá þá, hljóp hann
móti þeim úr sínum tjalddyrum og laut þeim
til jardar, og mælti: Herra! hafi eg fundid
nád í þínum augum, svo gakk þú ekki fram
hjá þínum þræli. 4. Leyfid ad sókt sé vatn,
og þvoid ydar fætur, og hvílid ydur undir
trénu. 5. Og eg vil færa ydur lítid eitt af
mat, og styrkid ydar hjortu, sídan meigid þér
halda áfram ferdinni; því þessvegna hafid þér
geingid hér um hjá ydar þræli. Og þeir
svorudu: gjørdu eins og þú hefur sagt. 6.
Þá flýtti Abraham sér í tjald Søru og mælti:
sæktu nú sem skjótast þrjá mælira hveitis, hnod-
adu og bakadu køkur! 7. Og Abraham hljóp
til nautanna, og tók kálf úngann og gódann og
fékk þénaranum sem flýtti sér ad matreida hann.
8. Og hann tók rjóma og mjólk og þann kálf
sem var matbúinn, og setti fyrir þá, en hann
stód frammi fyrir þeim undir trénu, og þeir
átu. 9. Og þeir søgdu til hans: hvar er kona
þín Sara? hann svaradi: þarna í tjaldinu.
10. Og einn þeirra sagdi: aptur mun eg koma
til þín á ødru ári, þá skal Sara kona þín
vera búin ad eignast son; og Sara heyrdi
þetta í dyrum tjaldsins sem voru ad baki hans.
11. En Abraham og Sara voru gømul og
komin til ára sinna; og kvennlegir edlishættir
voru horfnir frá Søru. 12. Og Sara hló í
sínu hjarta, og mælti: eptir ad eg er gømul
ordin, skal eg þá munad hafa? og minn mad-
ur er gamall! 13. Og Drottinn sagdi til
Abrahams: hvar fyrir hlær Sara, og segir:
mun eg þá eiga barn, eg sem er svo gømul?
14. Er Drottni nokkud ómøgulegt? í þetta
mund mun eg aptur til þín koma ad ári, og
Sara hefur þá eignast son. 15. Og Sara neit-
adi og sagdi: eg hló ekki, því hún var hrædd.
Og hann sagdi: nei! víst hlóstu. 16. Þá stódu
mennirnir upp, og stefndu þadan til Sódóma; en
Abraham gékk med þeim á veg ad fylgja þeim.
Og Drottinn mælti: því skyldi eg leyna Ab-
raham því sem eg ætla ad gjøra? 18. Þar-
ed Abraham skal verda ad miklu og voldugu
fólki. Og allar þjódir skulu af honum blessan
hljóta; 19. því eg hefi útvalid hann, ad hann
bjódi sonum sínum, og sínu húsi eptir sig, ad
þeir vardveiti vegu Drottins, og gjøri þad
sem rétt er og rádvandlegt, til þess Drottinn
láti koma fram vid Abraham, þad sem hann
hefur honum heitid.

2.) 20. Og Drottinn mælti: mikill hávadi

*) Arabiskir umskéra syni sína 13 ára gamla. Þeir rekja ætt sína til Ísmaels.

er í Sódóma og Gomorra, og þeirra synd mjøg þúng. 21. Því ætla eg ad fara þángad og sjá, hvert þeir fullkomlega hafa adhafst eptir því hrópi sem til mín er komid, eda ef ekki, vil eg líka vita þad. 22. Og mennirnir snérust á veg og héldu til Sódóma, og Abraham stód ennú frammi fyrir Drottni. 23. Og Abraham gékk nær honum og mælti: hvert munt þú afmá hinn réttláta med þeim gudlausa? 24. Máské 50 réttlátir séu í stadnum: vilt þú og burtrykkja þeim, og þirma ekki stadnum vegna þeirra 50 réttlátu sem þar eru? 25. fjærri sé þad þér ad gjøra slíkt, ad deyda hinn réttláta med þeim gudlausa, svo ad sá réttláti sé eins og sá ógudlegi; fjærri sé þad þér! mun dómari alls heimsins ekki dæma rétt? 26. Og Drottinn mælti: finni eg í stadnum Sódóma 50 réttláta, svo þirmi eg øllum stadnum þeirra vegna. 27. Abraham svaradi og sagdi: Æ! eg hefi dyrfst ad tala vid Drottinn, enþótt eg sé mold og aska. 28. Kannské sim skorti á fimtíu réttláta: munt þú eydileggja allan stadinn vegna þessara fim? og hann (Drottinn) mælti: eg skal ekki eydileggja hann, finni eg þar 45. 29. Og hann hélt áfram vid hann ad tala og mælti: þar kynnu máské ad finnast 40. En hann svaradi: eg skal ekki gjøra þad (eydileggja stadinn) vegna þeirra 40. 30. Og hann sagdi: æ ad þó Herrann ekki reidist ad eg tala! máské þar finnist 30. Og hann svaradi: eg skal ekki gjøra þad, finni eg þar 30. 31. Og hann sagdi: æ, sjá! eg dyrfist ad tala vid Herrann! máské þar finnist 20. Og hann mælti: eg skal ekki eydileggja hann vegna þeirra 20. 32. Og hann mælti: æ ad Herrann þó ekki reidist ad eg enn ad eins í þetta sinn tala! máské þar finnist 10. Og hann sagdi: eg vil ekki eydileggja hann vegna þeirra 10. 33. Og Drottinn fór leidar sinnar þegar hann hafdi endad tal sitt vid Abraham; en Abraham fór aptur heimleidis.

## 19. Kapítuli.

1.) Sódóma er eydilögd. 2.) Lot frelsast. 3.) Uppruni Amorita og Móabita.

1.) 1. Og um kvøldid komu tveir Einglarnir til Sódóma, en Lot sat í Sódómuborgar hlidi; og er hann sá þá, stód hann upp í móti þeim, og hneigdi sína ásjónu til jardar, 2. og mælti: heyrid, mínir herrar! komid þó inní hús ykkar þræls, og náttid (þar) og þvoid ykkar fætur. Svo gétid þid á morgun tekid ykkur upp og farid ykkar leid. Og þeir søgdu: nei! heldur viljum vid vera í nótt, á strætinu. 3. Og hann lagdi mikid ad þeim, og þeir fóru inn til hans í hans hús. Og hann bjó þeim máltíd og bakadi þeim ósýrdar køkur, og þeir átu. 4. En ádurenn þeir geingu í hvílur, umkríngdu borgar menn, mennirnir í Sódóma, húsid, úngir og gamlir, allur múgurinn allstadar frá, 5. kølludu á Lot og mæltu: hvar eru þeir menn sem komu til þín í kvøld? leid þú þá út ad vér meigum leika vid þá! 6. Lot gékk þá út til þeirra og læsti eptir sér húsinu, 7. og sagdi: adhafist ekki íllt, brædur mínir! 8. Sjá! eg hefi tvær dætur sem ennú hafa eingan mann þídst, eg skal leida þær út til ydar, gjørid vid þær sem ydur gott sýnist; gjørid ad eins ekkért þessum mønnum; því þess vegna eru þeir komnir undir skugga míns þaks. 9. Og þeir søgdu: kom þú nær! og enn aptur: þú ert útlendur madur hér, og villt sída oss! vel og gott! vér skulum fara verr med þig enn þá; og nú gjørdu þeir þraung ad manninum, ad Lot, og færdu sig nær, til ad brjóta upp húsid. 10. Þá seildust mennirnir út, og drógu Lot til sín inn í húsid og læstu dyrunum. 11. En mennina sem voru úti fyrir dyrum húsins, slóu þeir med blindni, smáa

og stóra, svo þeir áttu bágt med ad finna dyrnar. 12. Og mennirnir sögdu vid Lot: ef þú hefir nokkurn mág, syni eda dætur eda nokkurn þér vandabundinn (auk þessara) í bænum, þá haf þá burt úr þessum stad. 13. Því vid ætlum ad eydileggja þennan stad, af því þeirra miklu óléti eru komin Drottni til eyrna, og hann hefur sendt okkur til ad eydileggja stadinn. 14. Þá gékk Lot út og taladi vid mága sína, sem ætludu ad eiga dætur hans, og mælti: takid ydur upp og farid úr þessum stad, því Drottinn mun eydileggja bæinn; en mágarnir tóku þessu sem hann væri ad gjöra ad gamni sínu. 15. En strax sem dagadi, ráku Einglarnir eptir Lot, og sögdu: taktu þig til! tak þú konu þína og bádar dætur þínar, sem hjá þér eru, svo þú ekki tortínist vegna synda þessa stadar. 16. En er hann fór enn þá hægt ad öllu, tóku mennirnir í hönd honum og í hönd hans konu, og í hönd hans bádum dætrum, því Drottinn vildi þirma honum, og leiddu hann út fyrir stadinn.

2.) 17. Og þad skédi, þegar þeir höfdu leidt hann út, ad annar Eingillinn sagdi vid hann: frelsa líf þitt! lít ekki til baka og nem hvergi stadar á öllu þessu sléttlendi! bjarga þér á fjallinu, ad þú ekki tínist. 18. Þá sagdi Lot til þeirra: æ nei, herra minn! 19. Sjá! þinn þræll hefir fundid nád í þínum augum, og þú hefir sýnt á mér mikla miskun, ad láta mig halda lífi; en eg gét ekki bjargad mér á þessu fjalli; mér gétur viljad sú ólukka til ad eg deyi; 20. Sjá! þarna er bær í nánd, og er lítill, til ad flýa í, þángad vildi eg meiga flýa, er hann ekki lítill? ad mín sál lifi. 21. Og hann (Eingillinn) sagdi til hans: sjá! eg hefi veitt þér líka þessa bæn, eg skal ekki eydileggja þann bæ, sem þú talar um. 22. Flýt þér þángad! bjarga þér! því eg gét ekkért gjört fyrr enn þú kémst þángad; því kallar madur þann bæ Sóar. (Lítill.) 23. En sólin var komin upp, þegar Lot kom til Sóar. 24. Og Drottinn lét rigna yfir Sódóma og Gomorra brennisteini og eldi frá Drottni af himni. 25. Og hann eydilagdi þessa stadi og allt héradid og alla innbúa stadanna, og gróda jardarinnar. 26. En kona Lots hvarf aptur og vard ad salt stólpa. 27. Og Abraham fór snemma á fætur þann sama morgun, og gékk þángad, hvar hann hafdi stadid frammi fyrir Drottni; 28. og horfdi til Sódóma og Gomorra, til alls héradsins um kríng, og sá sig um, og sjá! reykur gékk upp af jördunni, eins og reykur úr ofni. 29. En þegar Drottinn eydilagdi stadina á þessu sléttlendi, minntist Gud á Abraham, og leiddi Lot úr eydileggíngunni, þegar hann eydilagdi stadina sem Lot bjó í.

3.) 30. En Lot flutti sig frá Sóar, og stadnæmdist á fjallinu og bádar hans dætur med honum; því hann var hræddur vid ad vera í Sóar, og hann var þar í hellir, hann og bádar hans dætur. 31. Þá sagdi sú eldri vid hina ýngri: fadir okkar er gamall, og eingin madur á jördunni sem leggist med okkur eptir alls heimsins sid. 32. Kom þú! vid skulum géfa födur okkar vín ad drekka, og leggjast hjá honum, svo vid fáum gétnad af okkar födur. 33. Svo gáfu þær födur sínum vín ad drekka þá sömu nótt, og sú eldri gékk inn og lagdist hjá födur sínum; og hann vissi hverki af því ad hún lagdi sig, né ad hún stód upp. 34. Og um morguninn sagdi sú eldri vid þá ýngri: sjá! í nótt lá eg hjá födur mínum; vid skulum nú og í (nótt) kvöld géfa honum vín ad drekka, og far þú inn, og sof hjá honum, ad vid fáum gétnad af okkar födur. 35. Svo gáfu þær födur sínum vín ad drekka þá sömu nótt og sú ýngri tók sig

V. 26. Lúc. 17, 32.

til og lagdist hjá honum, og hann vissi ekki af
þegar hún lagdi sig, eda stód upp. 36. Og
bádar dætur Lots feingu gétnad af fødur sín=
um. 37. Sú eldri fæddi son sem hún kalladi
Moab (af fødur), hann er fadir Moabita, sem
enn kallast svo. 38. Sú ýngri fæddi líka son
og kalladi hann Ben = ammi (sonur fødur míns)
hann er fadir þeirra sem enn í dag kallast
Ammonssynir.

## 20. Kapítuli.

Abimelek tekur Søru frá Abraham, en skilar henni aptur.

1. Þá flutti Abraham sig þadan sudur í
landid, og bjó milli Kades og Súr, og dvaldi
í Gerar. Og Abraham sagdi: ad kona sín
Sara væri systir sín. Þá sendi Abimelek Kóng=
ur í Gerar, og tók Søru. 3. En Gud kom
til Abimeleks í draumi um nóttina og sagdi til
hans: heyrdu! þú skalt deya vegna þeirrar
konu sem þú tókst, hún er gipt kona. 4. En
Abimelek hafdi ekki komid nærri henni. Og
hann sagdi: Herra! villtu þá líka deyda réttlátt
fólk? 5. hefur hann ekki sagt mér: hún er systir
mín? og líka hefur hún sagt: hann er bródir
minn. Eg hefi því gjørt þetta í hjartans grand=
varlegleika og med hreinni hønd. 6. Og Gud
sagdi vid hann í draumi: eg vissi ad þú gjørd=
ir þad í grandvarlegleika hjarta þíns; því
vardveitti eg þig líka, svo þú syndgadir ei á
móti mér, því leifdi eg þér ekki ad snerta hana.
7. Svo fá nú manninum sína konu aptur, því
hann er mér handgeinginn (Spámadur) hann
mun bidja fyrir þér ad þú lifir; en ef þú
skilar henni ekki aptur, þá skaltu vita, ad þú
munt vissulega deya og allt sem þitt er.

8. Og Abimelek reis árla upp um morgun=
inn og kalladi til sín alla sína þénara (rád=
gjafa) og taladi øll þessi ord fyrir þeirra eyr=
um; og mennirnir urdu mjøg óttaslegnir. 9.
Og Abimelek kalladi Abraham og sagdi vid
hann: hvad hefur þú gjørt oss, og hvad hefi
eg misgjørt vid þig, ad þú skyldir leida yfir
mig og mitt ríki svo stóra synd? þú hefur
adhafst þad verk móti mér, sem ekki á ad frem=
ja. 10. Og Abimelek sagdi (enn framar) vid
Abraham: hvad hefur þú sjed í, ad þú gjørdir
þetta? 11. Þá svaradi Abraham: eg hugs=
adi: vissulega er eingin Guds ótti á þessum
stad. Þeir drepa mig því vegna konu minn=
ar. 12. Líka er hún sannarlega systir mín,
dóttir fødur míns en ekki dóttir módur minn=
ar og er ordin mín kona. 13. Og þad skédi,
þegar Gud lét mig fara úr míns fødurs húsi,
ad eg sagdi vid hana, sýndu mer þá góð=
semi hvar sem vid komum: segdu eg sé bródur
þinn. 14. Þá tók Abimelek saudi, naut, þræla
og ambáttir, og gaf Abraham, og fékk honum
aptur konu hans Søru. 15. Og Abimelek
sagdi: sjá! mitt land liggur fyrir þínum aug=
um, bú þú í því hvar sem þér líkar. 16. Og
vid Søru sagdi hann: eg hefi feingid bródur
þínum þúsund sikla silfurs. Þetta se þér
augna skýla, hjá øllum sem med þér eru og
øllum (ødrum) og þú munt þekkjast. 17. Og
Abraham bad til Guds og Gud læknadi Abi=
melek og hans konu og hans þernur ad þær
ólu børn. 18. Því Drottinn hafdi læst sér=
hverjum módur kvid í Abimeleks húsi sakir
Søru, konu Abrahams.

## 21. Kapítuli.

1.) Isaak fæddist. 2.) Ismael er rekinn burt. 3.) Abraham gjørir sáttmála vid Abimelek.

1.) 1. Og Drottinn leit til Søru eins og
hann hafdi lofad, og gjørdi vid hana þad, sem
hann hafdi sagt. 2. Og svo vard Sara ólétt
og fæddi Abraham son í hans elli, í þad
mund sem Gud hafdi sagt. 3. Og Abraham
nefndi nafn þess sonar sem honum fæddist, sem

Sara fæddi honum: Ísaak. 4. Og Abraham
umskar son sinn Ísaak þá hann var 8ta daga
gamall, eins og Gud hafdi bodid honum. 5.
En Abraham var 100 ára gamall þegar hon-
um fæddist sonur hans Ísaak. 6. Og Sara
sagdi: Gud hefur gjørt mér hlátur; hver sem
þetta heyrir mun uppá mig hlæa. 7. Hver
mundi hafa þorad ad segja Abraham: Sara
leggur børn á brjóst? ad eg skyldi ala son í
hans elli! 8. Og barnid dafnadi og var van-
id af brjósti, og Abraham gjørdi mikla veitslu
þann dag, sem Ísaak var tekinn af brjósti.

2.) 9. Og Sara sá ad sonur Hagar þeirr-
ar Egyptsku, er hún hafdi fædt Abraham, hló;
10. Og hún sagdi vid Abraham: rek þú burt
þessa ambátt, og hennar son, því ekki skal
þessi ambáttar sonur taka arf med syni mínum,
med Ísaak! 11. En Abraham mislíkadi mjøg
þetta ord, vegna sonar síns (Ísmaels). 12.
Þá sagdi Gud vid Abraham: tak þú ekki upp
þykkjuna fyrir sveininn og þína ambátt! hlýd
þú øllu því sem Sara hefir sagt þér; því þar
sem Ísaak er, þar skal þín ætt heita. 13. Eg
mun líka gjøra ambáttarsoninn ad þjód, því
hann er þitt afkvæmi. 14. Og Abraham stód
árla morguns upp, tók braud og leigil med
vatn, og lagdi Hagar á herdar, og barnid med
og lét hana fara burt. Hún fór og villtist í
eydimørkunni (sem kénnd er vid) Berseba. 15.
En sem vatnid var þrotid á leiglinum, lagdi hún
barnid undir runna nokkurn. 16. Og gékk
burt og settist gagnvart, svo sem í ørskots
fjarlægd, því hún sagdi: eg gét ekki horft á ad
barnid deyi. Og hún sat gégnt og grét há-
støfum.

17. Þá heyrdi Gud raust sveinsins, og Eing-
ill Guds kalladi til Hagar af himni, og mælti:
hvad geingur ad þér Hagar? vertu óhrædd!
Gud hefur heyrt til sveinsins, þar sem hann
liggur. 18. Statt þú upp, reistu dreinginn á
fætur, og leiddu hann þér vid hønd, því eg
mun gjøra hann ad mikilli þjód. 19. Og Gud
upplauk hennar augum svo hún sá vatnsbrunn;
þángad gékk hún og fyllti sinn leigil med vatn,
og gaf sveininum ad drekka. 20. Og Gud
var med sveininum, og hann þroskadist og bjó
í eydimørkunni, og þegar hann hafdi þroska
til, vard hann bogmadur. 21. Hann átti heima
á eydimørkunni Faran, og módir hans tók
honum konu á Egyptalandi.

3.) 22. Og þad skédi ad Abimelek og hans
hershøfdíngi Pikol taladi um þetta leiti vid
Abraham: Gud er med þér í øllu sem þú gjør-
ir. 23. Vinn þú mér nú hér eid vid Gud,
ad þú skulir hverki vera mér ótrúr, né mínum
børnum né barna børnum; eins og eg hefi aud-
sýnt þér gódsemi, svo skalt þú breita vid mig
og þad land sem þú hefir stadnæmst í. 24.
Og Abraham mælti: eg skal sverja! 25. en
Abraham átaldi Abimelek sakir vatnsbrunnsins,
sem þrælar Abimeleks høfdu tekid med ofríki.
26. Þá sagdi Abimelek: ekki vissi eg hver
þad gjørdi, hverki hefir þú sagt mér þad, og
ekki heldur hefi eg heyrt þad fyrri enn í dag.
27. Þá tók Abraham saudi og naut og gaf
Abimelek; og þeir gjørdu sáttmála sín í milli.
28. Og Abraham tók afsídis sjø lømb. 29. Þá
mælti Abimelek til Abrahams: hvad skulu þau
sjø lømb, sem þú tókst afsídis? 30. Og hann
svaradi: vid þessum sjø lømbum skaltu taka af
minni hendi til vitnis um, ad eg hefi grafid
þennan brunn. 31. Svo kallast sá sami stad-
ur Berseba (Sjøbrunnur) af því þeir sóru þar
bádir. 32. Og svo gjørdu þeir sáttmála sín í
milli í Berseba; sídan tók Abimelek sig upp og Pik-
ol hans hershøfdíngi og fóru til baka í Filistea

V. 16. Þegar Sara brúkadi skýlu gátu allir sjeþ ad hún mundi vera gift kona, auk þess ad fridleiki undir skýlu er sidur freistandi.

land. 33. Og hann (Abraham) plantadi lund í Berseba, og ákalladi þar nafn Drottins þess eilífa Guds. 34. Og Abraham stadnæmdist leingi í Filistea landi.

## 22. Kapituli.

1.) Isaak á ad fórnfærast. 2.) Abraham fær nýtt fyrirheit.

1.) 1. Og þad skédi eptir þessa atburdi, ad Gud freistadi Abrahams og mælti til hans: Abraham! og hann ansadi: hér em eg! 2. Og hann sagdi: láttu sjá! tak þú son þinn, þinn einka son, sem þú elskar, hann Isaak, og far þú í landid Moría, og offra honum þar sem brennifórn á því fjalli sem eg mun vísa þér á. 3. Og Abraham var snemma á fótum og södladi asna sinn, og tók med sér tvo af þrælum sínum, og Isaak son sinn, og hann klauf vidinn til brennifórnarinnar, tók sig upp og hélt á stad, þángad sem Gud sagdi honum. 4. A þridja deigi sá Abraham stadinn álengdar. 5. Þá sagdi Abraham til sinna þræla: verid hér hjá asnanum; en eg og sveinninn, vid munum gánga þángad (sem eg bendi til) til ad bidjast fyrir; og komum svo til ykkar aptur. 6. Og Abraham tók brennifórnar vidinn og lagdi syni sínum, Isaak á herdar, en tók eldinn og hnífinn sér í hönd; og svo geingu þeir bádir saman. 7. Þá mælti Isaak vid fødur sinn Abraham: fadir minn! og hann svaradi: hér er eg, sonur minn. Og hann mælti: sjá! hér er eldurinn og vidurinn, en hvar er saudurinn til brennifórnarinnar? 8. Og Abraham sagdi: Gud mun sjá fyrir saud til brennifórnarinnar, sonur minn! og svo geingu þeir tveir einir saman. 9. Og þeir komu á stadinn sem Gud hafdi vísad á, og Abraham bygdi þar altari, og lagdi vidinn á, og batt son sinn Isaak og lagdi hann uppá altarid, ofaná vidinn. 10. Og Abraham rétti út sína hönd og tók hnífinn, til ad slátra syni sínum. 11. Þá kalladi Eingill Drottins til hans af himni, og mælti: Abraham! Abraham! og hann ansadi: hér em eg. 12. Hann sagdi þá: legg þú ekki hönd á sveininn! og gjördu honum ekkért! því nú veit eg ad þú óttast Gud, ad þú synjadir mér ekki um þinn son, þinn einasta. 13. Þá vard Abraham litid vid, og sjá! hrútur hékk á bak vid hann á hornunum í runna nokkrum; og Abraham fór og tók hrútinn og offradi honum, sem brennifórn, í stad sonar síns. 14. Og Abraham kalladi þennann stad: Drottinn sjer rád. Svo menn segja enn í dag: á fjalli Drottins verdur sjed rád. 15. Og Eingill Drottins kalladi í annad sinn af himni til Abrahams, 16. og mælti: eg sver vid sjálfann mig, segir Drottinn, ad fyrst ad þú gjördir slíkt, og sparadir ekki vid mig þinn son, þinn eina son, þá skal eg blessa þig, og margfalda þitt kyn, sem stjörnur á himni, sem sand á sjáfar strönd. Og þín ætt skal ná borgarhlidinu sinna óvina. 18. Og af þinni ætt skulu allar þjódir á jördunni blessun hljóta, vegna þess þú hlýddir minni raust. 19. Og Abraham fór til baka til sinna þræla. Og þeir tóku sig upp, og urdu samferda til Berseba; því Abraham bjó þá í Berseba.

20. Og þad skédi eptir þessa atburdi ad Abraham var sagt: sjá! Milka hefir fædt bródur þínum Nahor börn. 21. Us sinn frumburd og Bús hans bródur, og Kemuel, födur Arams, 22. og Kesed og Kaso og Fildas, og Idlaf og Betuel. 23. Og Betuel gat Rebekku; þessa átta fæddi Milka, Nahor bródur Abrahams. 24. Og hans hjákona, sem hét Reuma, hún ól líka: Teda, og Gaham og Tabus og Maaka.

## 23. Kapituli.

Sara andast — Abraham kaupir fasteign í landinu.

1. Og dagar Söru vóru hundrad tuttugu

og sjø ár, lífs ár Søru. 2. Og Sara dó í Kirjat-Arba, þad er: Hebron, í landinu Kanaan, og Abraham kom til ad harma hana og gráta. 3. Sídan stód hann upp frá hlid sinnar øndudu og taladi vid sonu Hets og mælti: 4. eg em útlendur madur og bý þó medal ydar; látid mig fá greftrunar-eign hjá ydur, ad eg jardi mitt lík og komi því frá mér. 5. Þá svørudu synir Hets Abraham og søgdu: 6. heyr oss, minn herra! þú ert Guds høfdíngi vor á medal; jarda þú þína framlidnu í vorum heidarlegustu grøfum! eingin medal vor skal meina þér sína grøf, ad jarda í þína framlidnu. 7. Þá stód Abraham upp og hneigdi sig fyrir landsfólkinu, fyrir Hets sonum, 8. og taladi vid þá og mælti: ef þad er ydar vilji ad eg meigi jarda mína framlidnu og ad eg flytji hana frá minni augsýn, þá heyrid mig! og bidjid fyrir mig, Efron Sóarsson, 9. ad hann láti mig fá hellirinn Makfela, sem er vid endann á hans akri; hann láti mig fá hann, fyrir fullt verd, til greftrunar-eignar medal ydar. 10. En Efron bjó medal Hets sona. Þá svaradi Efron, sá Hetiti, Abraham, svo ad Hets synir heyrdu, frammi fyrir øllum þeim sem geingu út og inn um hans borgar hlid, og mælti: 11. nei, minn herra! heyr mig! eg géf þér akurinn, og hellirinn sem þar er, géf eg þér líka, í áheyrn Hets sona. Graf þú þína framlidnu. 12. Þá hneigdi Abraham sig fyrir landsfólkinu. 13. Og hann taladi vid Efron í vidurvist landsfólksins og mælti: viljir þú unna mér akursins, þá bid eg ad þú ad eins heyrir mig! eg géf peninga fyrir akurinn, tak þú vid þeim af mér! svo gref eg þar mína framlidnu. 14. Þá svaradi Efron Abraham og mælti: 15. minn herra! akurinn er 4 hundrud silfur sikla virdi, en hvad er þad okkar í milli? jarda þú þína framlidnu! 16. Og Abraham hlýddi Efron og reiddi honum silfrid, eins og Efron hafdi tiltekid í vidurvist Hets sona, 4 hundrud sikla silfurs gilda og góda. 17. Svo var Efrons akur sem er hjá Makfela, austan til vid Mamre, akurinn og hellirinn med, og øll trén sem voru á akrinum allt um kríng, festur Abraham til eignar, 18. í áheyrn Hetssona, í vidurvist allra sem út og inn geingu um hans borgar hlid. 19. Og eptir þad jardadi Abraham konu sína Søru, í hellri akursins í Makfela, fyrir austan Mamre, þad er: Hebron í Kanaans landi. 20. Svona var akurinn og hellirinn þar á, festur Abraham, til greftrunar eignar, af sonum Hets.

## 24. Kapítuli.

Isaak fær Rebekku.

1 Þegar Abraham var ordinn gamall, kominn til ára, og Drottinn hafdi blessad hann í øllu, 2. þá sagdi Abraham vid sinn þjón, þann eldsta í sínu húsi, umsjónarmann yfir øllu sem hann átti: legg þú þína hønd undir mína lend 3. og sver þú mér vid Drottinn Gud himinsins, og Gud jardarinnar, ad þú skulir ekki taka syni mínum til handa nokkra konu af Kananíta dætrum, medal hverra eg bý; 4. heldur skaltu fara í mitt fødurland og til ættfólks míns, og taka konu handa syni mínum Isaak. 5. Þjóninn svaradi honum: en ef konan vill ekki koma med mér í þetta land, á eg þá ad fara med son þinn aptur í þad land sem þú komst frá? 6. Og Abraham sagdi til hans: varastu ad hafa son minn þángad! 7. Drottinn, himinsins Gud, sem tók mig úr húsi fødur míns, og úr mínu fødurlandi, sem hefur géfid mér fyrirheit og svarid mér og sagt: þíni ætt skal eg gefa þetta land, hann mun senda sinn Eingil á undan þér, ad þú þadan gétir tekid konu handa syni mínum. 8. Og vilji konan ekki fara med þér, svo ertu kvittur eidsins. Láttu ad eins ekki son minn fara þángad. 9. Svo

lagdi þjóninn sína hønd undir Abrahams lend, síns húsbónda, og vann honum eid ad þessu.
10. Svo tók þjóninn tíu úlfalda af úlføldum síns herra og lagdi af stad, og hafdi med sér ýmislega dírgripi síns herra, lagdi upp og ferdadist til Mesopotamíu, til Nahors borgar.
11. Og hann ádi sínum úlføldum utan borgar, hjá vatnsbrunni, um kvøld, um þad bil sem vatn er sókt. 12. Og hann mælti: Drottinn, Gud húsbónda míns Abrahams, láttu mig sjá þad í dag, ad þú audsýnir miskun mínum húsbónda Abraham! 13. sjá! eg stend vid þennan brunn og dætur bæarmanna koma híngad ad sækja vatn; 14. og ef þad skédur, ad sú stúlka sem eg seigi vid: hneig þína skjólu nidur, og lát mig drekka; ad hún þá svarar: drekk þú! eg vil líka vatna þínum úlføldum; sú hina sama sé sú, sem þú hefur útvalid þínum þénara Isaak; og þar af gét eg vitad ad þú audsýnir miskun mínum herra. 15. Og þad skédi, ádur enn hann hafdi endad sitt tal, sjá! þá kom Rebekka, dóttir Betuels, sem var sonur Milku, konu Nahors, bródur Abrahams; og hún bar skjóluna á øxlinni. 16. En stúlkan var mikid fríd, ennþá mey, og eingin madur hafdi þýdst hana og hún sté nidur í brunninn, fyllti sína skjólu, og kom aptur upp (úr brunninum). 17. Þá hljóp þjóninn móti henni og mælti: géf mér ad drekka vatnssopa, úr skjólu þinni! 18. Og hún svaradi: drekk minn herra! og hún tók strax skjóluna nidur (af øxlinni) í sína hønd, og gaf honum ad drekka.
19. Og þegar hún hafdi géfid honum nóg ad drekka, mælti hún: líka skal eg ausa þínum úlføldum vatn þángad til þeir hafa drukkid nóg;
20. Og nú var hún ekki sein, og hellti úr skjólunni í trýgilinn, og hljóp svo ad brunninum ad sækja vatnid; og hún sókti vatn øllum hans úlføldum. 20. Og manninum vard starsýnt á hana, en þagdi, til ad vita hvert Drottinn hefdi látid hans ferd lukkast edur ekki. 22. En sem hans úlfaldar høfdu drukkid, tók madurinn eyrnahríng úr gulli, sem vóg hálfann sikil; og tvø armbønd, (setti hann) á hennar hendur; þau vógu 10 sikla gulls; 23. og mælti: hverra manna ert þú? segdu mér! er rúm í húsi fødur þíns til ad hýsa oss í nótt?
24. Og hún sagdi til hans: eg er dóttir Betuels sonar Milku, sem hún ól Nahor. 25. Og hún sagdi til hans: bædi er hálmur og nóg hey hjá oss, og líka rúm til ad hýsa ydur.
26. Þá laut madurinn og hneigdi sig fyrir Drottni, 27. og hann mælti: lofadur sé Drottinn, Gud húsbónda míns Abrahams, sem ekki hefur dreigid í hlé sína miskun og trygd vid minn herra! Drottinn hefur leidt mig veginn til húsa bródur húsbónda míns. 28. Og stúlkan rann heim og sagdi frá því í húsi módur sinnar, sem skéd var. 29. En Rebekka átti bródur, sem hét Laban, og Laban hljóp til mannsins, út ad brunninum. 30. Og þad skédi, þá hann sá hríngiun og armbøndin á ørmum systur sinnar, og þá hann heyrdi ord Rebekku, systur sinnar, sem sagdi: svona taladi madurinn vid mig; þá fór hann til mannsins. Og sjá! hann stód hjá úlføldunum vid brunninn. 31. Og hann sagdi: kom þú inn (til vor) blessadur af Drottni! því stendur þú hér úti? eg hefi rýmt til í húsinu, og pláts er fyrir þína úlfalda. 32. Svo kom madurinn inn í húsid, og hann (Laban) tók ofan af úlføldunum og gaf þeim hálm og fódur, en færdi honum vatn til ad þvo sínar fætur, og fætur þeirra manna sem voru med honum; 33. og matur var settur fyrir hann, en hann sagdi: eg et ekki fyrri, enn eg hefi borid upp mitt erindi. Og (Laban) hann svaradi: tala þú! 34.
Og hann mælti: eg em þjón Abrahams. 35.
Drottinn hefur ríkuglega blessad húsbónda minn, svo hann er ordinn mikill madur, og hann

hefur géfid honum saudi og uxa og silfur og gull, og þræla og þernur og úlfalda og asna. 36. Og Sara, kona húsbónda míns hefir alid herra mínum son, í sinni elli, og hann hefur géfid honum allt hvad hann á. 37. Og minn herra tók af mér eid og sagdi: þú skalt einga konu taka syni mínum, af dætrum Kananíta, í hverra landi eg bý; 38. heldur skaltu fara í míns fødurs hús, og til minna ættíngja, og taka syni mínum konu. 39. Og eg sagdi vid húsbónda minn: máské konan vilji ei fara med mér. 40. Og hann svaradi mér: Drottinn, fyrir hvers augsýn eg hefi geingid, mun senda sinn Eingil med þér, og láta ferd þína lukkast, svo þú gétir feingid syni mínum konu af minni ætt, og úr húsi míns fødurs; 41. Því ad eins skaltu vera kvittur þess eids sem þú sver mér, ad þú komir til minna ættíngja, og þeir vilji ekki géfa þér hana, þá ertu kvittur eidsins sem eg tek af þér. 42. Og þá eg í dag kom ad brunninum, sagdi eg: Drottinn, Gud míns herra Abrahams! ætlir þú ad géfa lukku til þeirrar ferdar, sem eg nú hefi farid, 43. þá sjá! eg stend vid þennan brunn, og fari svo, ad sú stúlka, af þeim sem koma híngad til ad sækja vatn, sem eg ávarpa þannig: lofa þú mér ad drekka dálítid af vatni úr þínu vatns íláti, segir: 44. bædi mátt þú drekka, og líka skal eg sækja vatn þínum úlføldum; sú sé kona sú, sem Drottinn hefur ætlad syni míns herra. 45. En ádur enn eg hafdi endad mitt tal í mínu hjarta, sjá! þá kom Rebekka þángad, og hennar skjóla var á hennar øxl, og hún gékk nidur i brunninn, og bar upp vatnid; og eg sagdi vid hana: lofa þú mér ad drekka! 46. Og ódar lét hún skjóluna nidur af øxlinni og sagdi: drekk þú! líka skal eg vatna þínum úlføldum. Og eg drakk, og líka vatnadi hún úlføldunum. 47. Þá spurdi eg hana og mælti: hvers dóttir ert þú? og hún sagdi: dóttir Betuels, Nahorssonar sem Milka fæddi honum. Svo heingdi eg skart á hennar andlit, og armbønd á hennar arma. 48. Og eg laut og beigdi mig fyrir Drottni, Gudi húsbónda míns Abrahams, sem hafdi leidt mig þann rétta veg, til ad taka bródur dóttur míns herra, handa hans syni. 49. Þar fyrir segid mér, hvert þér viljid sýna vinsemd og trygd herra mínum, en ef ekki, svo segid mér þad, svo eg géti snúid mér til hægri eda vinstri (leitast fyrir annarstadar). 50. Þá svørudu þeir Laban og Betuel: þessi atburdur er komin frá Drottni: vér gétum ekki sagt þér nei, (gott né íllt) 51. Sjá! Rebekka stendur þarna, tak þú hana, og far þína leid! ad hún verdi kona sonar þíns herra, eins og Drottinn hefur sagt. 52. Og sem Abrahams þjón heyrdi þessi ord, hneigdi hann sig til jardar fyrir Drottni. 53. Og hann tók upp gérsemar af gulli og silfri og klædnad, og gaf Rebekku, en bródur hennar og módur gaf hann dýrgripi. (2 Kron. 21, 3). 54. Sídan átu þeir og drukku, hann, og þeir sem med honum voru, og gistu þar um nóttina. Og þeir stódu upp árla um morguninn, og hann mælti: látid mig nú fara heim til míns herra! 55. Þá svørudu, hennar bródir og hennar módir: láttu stúlkuna vera ennú hjá oss nokkra daga, svo sem tíu! Þar eptir máttu fara. 56. En hann svaradi þeim: tefjid mig ekki! Drottinn hefir látid ferd mína heppnast; leyfid mér ad fara heim til míns herra! 57. Þau søgdu þá: vid skulum kalla á stúlkuna og vita hvad hún segir. 58. Þá kølludu þau á Rebekku og søgdu vid hana: villtu fara med þessum manni? og hún sagdi: eg vil fara. 59. Svo létu þau Rebekku systir sína og fóstru hennar fara med Abrahams þénara og hans mønnum. 60. Og þau blessudu Rebekku og søgdu til hennar: Systir vor! O ad þú verdir

ad þúsundsinnum þúsundum! nidjar þínir eign-
ist borgar hlid sinna óvina!
61. Þá tók Rebekka sig upp med sínum
þernum og þær settust uppá úlfaldana, og fóru
med manninum; og þénarinn tók vid Rebekku
og fór sína leid. 62. En Isaak kom gángandi
frá brunninum sem heitir: brunnur hins lif-
anda er sjer ráð (16, 14), því hann bjó sudur
í landinu; 63. Isaak hafdi geingid út um
kvøldid til ad gjøra bæn sína, útá akrinum, og
hann litadist um og sá úlfaldana koma. 64.
Og Rebekka leit upp og sá Isaak; hún sté þá
strax nidur af úlfaldanum. 65. Og hún sagdi
vid þénarann: hver er þessi madur sem kémur
á móti oss þarna á akrinum? Og þénarinn
svaradi: þad er minn Herra! Þá tók hún
skýluna og huldi sig. 66. Og þénarinn sagdi
Isaak frá øllu því sem hann hafdi gjørt. 67.
Og Isaak leiddi hana í tjald módur sinnar Søru,
og tók Rebekku, og hún vard hans kona, og
hann elskadi hana. Og svo vard Isaak hugg-
adur þess harms, er hann hafdi eptir módur sína.

## 25. Kapituli.

1.) Abraham giftist aptur og deyr. 2.) Ættir Is-
maels og Isaaks 3.) Esau og Jakob fædast —
þeirra vidskipti.

1.) 1. Og Abraham tók sér konu aptur, hún
hét Ketúra. 2. Og hún fæddi honum Simram
og Jokssan og Medan og Midian og Jesbak
og Súa. 3. Og Jokssan gat Sabea og Dedan,
og synir Dedans voru þeir Assurim og Letu-
sim og Leomim. 4. Og synir Midians: Efa
og Efer og Henok og Abida og Eldaa, allir
þessir eru Keturu synir. 5. Og Abraham gaf
Isaak allt sem hann átti. 6. En sonum þeim
sem Abraham hafdi átt med hjákonunum, gaf
hann gjafir, og lét þá fara austur í landid, til
austurs, medan hann enn var á lífi, frá syni
sínum Isaak. 7. Þetta er sá aldur sem Abra-
ham lifdi: hundrad sjøtíu og fim ár. 8. Og
Abraham andadist og dó í gódri elli, gamall og
saddur lífdaga; og safnadist til síns fólks. 9.
Og Isaak og Ismael synir hans jørdudu hann
í hellirnum í Makfela á akri Efrons sonar So-
ars Hetitans, fyrir austan Mamre; 10. á þeim
akri sem Abraham keypti af Hets sonum; þar var
Abraham jardadur og Sara kona hans. 11. Og
þad skédi, ad eptir andlát Abrahams blessadi Gud
Isaak son hans. Og Isaak bjó hjá þeim brunni
sem heitir: brunnur hins lifanda er sjer ráð.
2.) 12. Þetta er ættar tal Ismaels Abra-
hams sonar, þess sem Hagar hin egyptska, am-
bátt Søru, fæddi honum. 13. Og þessi eru
nøfn Ismaels sona med þeirra nøfnum, eptir
þeirra kynþáttum. Nebajot var hans frum-
getin son, svo Kedar og Adbeel og Mibsam,
14. og Misma og Duma og Massa, 15. og
Hadar og Tema, Jetúr, Nafis og Kedma.
16. Þessir eru synir Ismaels, og þessi þeirra
nøfn, eptir þeirra beitar híbýlum, og tjaldgird-
íngum *); tólf voru høfdíngjar þeirra ættkvísla.
17. Þetta vard aldur Ismaels: hundrad þrjá-
tíu og sjø ár, þá dó hann og sáladist, og safn-
adist til síns fólks. 18. Og þeir bjuggu frá
Hevila til Súr, fyrir austan Egyptaland, í
stefnu til Assyríu; fyrir austan alla sína bræd-
ur, tók hann (Ismael) sér bústad. 19. Þetta
er saga Isaaks Abrahams sonar. Abraham
átti Isaak; 20. og Isaak var fjørutíu ára
gamall, þegar hann giftist Rebekku, dóttir
Betuels hins Syrlendska, úr Mesopotamíu, syst-
ur Labans þess Syrlendska.
3.) 21. Og Isaak bad Drottinn fyrir konu
sinni, því hún var óbyrja, og Drottinn bæn-

*) 25 V. 16. fordum voru sumir Arabiskir med hjardir sínar í afdølum eda á fjøllum og láu vid hellra eda þar sem þeir gátu hast vígi og láu þar þá tjaldláusir; sumir þar á mót voru í tjøldum á sléttlendi; en høfdu girdingar kríngum þessi tjøld svo ógreidara væri ad gjøra þeim árás. Því þar var hvers hønd móti ødrum.

heyrdi hann, og Rebekka kona hans vard ólétt.
22. Og þá børnin hnytluduſt vid med henni,
ſagdi hún: ſé þad ſvona, því er eg þá (ordin
þúngud) og hún fór ad ſpyrja Drottinn. 23.
En Drottinn ſvaradi henni: þú geingur med
tvær þjódir, og tveir ættleggir munu af þínu
ſkauti koma; annar verdur ſterkari enn hinn,
og ſá ſtærri mun þjóna þeim minni. 24. Og
er hennar dagar voru lidnir ad hún ſkyldi fæda,
ſjá! þá voru tvíburar í hennar kvidi. 25. Og
hinn fyrri kom í ljós; hann var raudleitur og
allur lodinn ſem (gjæra) ſat úr hári og
þeir kølludu hann Eſau (lodinn). 26. Og
eptir þad kom bródir hans í ljós, og hann
hélt um hælinn á Eſau, og menn kølludu nafn
hans Jakob. (Hæl haldari). Isaak var 60 ára
þá þeir fædduſt. 27. En ſem ſveinarnir voru
ordnir ſtórir, gjørdiſt Eſau ſnidugur veidimad-
ur og akuryrkju madur; en Jakob var gódur
madur og hélt ſig ad tjøldunum. 28. Og
Isaak elſkadi Eſau, því honum ſmakkadiſt vel
hans veidi; en Rebekka elſkadi Jakob. 29.
Og einuſinni hafdi Jakob matbúid rétt nokkurn,
þegar Eſau kom heim þreyttur af mørkinni; 30.
þá ſagdi Eſau til Jakobs: láttu mig ſmakka þad
rauda, þetta rauda þarna; því eg em þreyttur,
af því var hann kalladur Raudur (Edom).
31. Og Jakob mælti: ſeldu mér fyrſt þinn
frumburdar rétt! 32. Og Eſau mælti: eg
er kominn í daudann; hvad ſtodar mig minn
frumburdar réttur? 33. Og Jakob mælti: vinn
þú mér þá í dag eid ad því! og hann ſór honum,
og ſeldi Jakob ſinn frumburdar rétt. 34. Og Ja-
kob gaf Eſau braud og bauna réttinn og hann
át og drakk og ſtód upp og gékk burt. Svo
lítils matti Eſau ſinn frumburdar rétt!

## 26. Kapítuli.

Isaak fer til Gerar vegna hallæris, fær nýtt loford um gudlega vardveitſlu, flytur ſig til og frá um landid.

1. Og þar vard mikid hallæri í landinu, ann-
ad hallæri enn þad fyrra, ſem var á Abrahams
døgum. Þá fór Isaak til Abimeleks Filiſtea
Kóngs í Gerar. 2. Og Drottinn birtiſt hon-
um og mælti: far þú ekki til Egyptalands,
vertu í því landi ſem eg ſegi þér. 3. Hafdu
þig í þeſsu landi og eg ſkal vera med þér og
bleſsa þig; því þér og þínum nidjum géf eg
øll þeſsi lønd, og eg held þann eid ſem eg ſór
Abraham, fødur þínum; 4. og eg gjøri nidja
þína, ſem ſtjørnur himins, og géf nidjum þínum
øll þeſsi lønd, og af þínu afſpreingi ſkulu allar
þjódir á jørdunni bleſsan hljóta, 5. af því ad
Abraham hlýddi minni rauſt og gjætti þeſs
ſem vid mig ſkyldi gjæta, minna ſkipana, ſetn-
inga og laga. 6. Og ſvo ſtadnæmdiſt Isaak í
Gerar. 7. Og þegar fólk þar ſpurdi um konu
hans, ſagdi hann: hún er mín ſyſtir; því hann
þordi ekki ad ſegja: hún er mín kona, ad fólk-
id þar á ſtadnum ekki ſkyldi myrda hann ſakir
Rebekku; því hún var fríd ſýnum. 8. Og
þad ſkédi, þá hann hafdi verid þar um hríd,
ad Abimelek Filiſtea Kóngur, leit út um glugga
og ſá, ad Isaak lék vid konu ſína Rebekku. 9.
Þá kalladi Abimelek: Isaak! og mælti: heyrdu!
viſsulega er hún konan þín; og hvernig gatſt
þú ſagt: hún er mín ſyſtir? Og Isaak ſagdi
til hans: eg hugſadi ad eg fyrir hennar ſakir
yrdi kannſké drepinn. 10. Og Abimelek mælti:
því hefur þú gjørt oſs þetta! hæglega gat þad
ſkéd, ad einhver af fólkinu hefdi lagſt med konu
þinni og þú hefdir leidt yfir oſs þá ſynda
ſekt. 11. Sídan baud Abimelek øllu fólkinu,
og mælti: hver ſem bekkiſt til vid þennan mann
og hans konu, ſá ſkal viſsulega deya.

12. Og Isaak ſádi í þeſsu landi og uppſkar
hundradfaldt, og Drottinn bleſsadi hann, 13.
og madurinn efldiſt og audgadiſt meir og
meir, þángad til hann var ordinn mjøg ríkur.
14. Og hann átti ſauda- og nauta-hjardir,
og marga þræla, og Fileſtear øfundudu hann.

15. Og alla þá brunna sem þénarar fødur hans høfdu grafid á døgum Abrahams, fødur hans, þá birgdu Filestear og fylltu med mold. 16. Og Abimelek sagdi til Isaaks: far þú burt frá oss! þú ert ordinn oss of voldugur. 17. Þá fór Isaak þadan, og setti tjald sitt í dalnum Gerar og bjó þar. 18. Og Isaak gróf upp aptur brunnana sem þeir høfdu grafid á døgum Abrahams, fødur hans, og sem Filistear høfdu apturbirgt, eptir dauda Abrahams, og gaf þeim þau sømu nøfn, sem fadir hans hafdi géfid þeim. 19. Og þjónar Isaaks grófu í dalnum, og fundu þar brunn lifandi vatns. 20. Og hyrdararnir frá Gerar þrættust á vid Isaaks hyrdara og søgdu: vér eigum vatnid. Og hann kalladi brunninn Esek (þrætu) af því þeir høfdu þráttad vid hann. 21. Og þeir grófu annan brunn, og þráttudu líka um hann, og hann nefndi hans nafn Sitna (stríd). 22. Eptir þad fór hann þadan og gróf enn þá brunn; um hann þráttudu þeir ekki, og hann kalladi þann brunn Rehobot (vídd) og sagdi: nú hefur Drottinn géfid oss nóg rúm, og vér munum vaxa í landinu. 23. Og þadan flutti hann sig til Berseba. 24. Þá birtist Drottinn honum sømu nóttina, og mælti: eg em Gud Fødur þíns, Abrahams, vert þú óhræddur; því eg er med þér, og blessa þig og eyk kyn þitt fyrir sakir Abrahams þénara míns. 25. Og hann bygdi altari á sama stad, og ákalladi nafn Drottins, og setti þar sitt tjald, og þar grófu þjónar Isaaks líka brunn.

26. Og Abimelek kom til hans frá Gerar, og Akusat vinur hans, og Fikol hans hershøfdíngi. 27. Þá sagdi Isaak til þeirra: því komid þér til mín, þér sem hatid mig og rákud burt frá ydur? 28. En þeir svørudu: vér sjáum ad Drottinn er med þér! því mælum vér: eidur sé milli vor, milli vor og þín, og vér viljum gjøra vid þig sáttmála, 29. ad þú gjørir oss ekkért íllt, eins og vér skulum ekki áreita þig, og eins og vér gjørdum þér ekki nema gott, og létum þig fara í fridi. Þú ert nú blessadur af Drottni. 30. Þá hélt hann þeim heimbod og þeir átu og drukku. 31. Og þeir stódu upp snemma um morguninn, og unnu eida hver ødrum; og Isaak lét þá frá sér og þeir fóru burt í fridi. 32. Og þad skédi á þeim sama deigi, ad Isaaks þjónar komu, og søgdu honum frá brunninum sem þeir høfdu grafid og mæltu til hans: vér høfum fundid vatn. 33. Og hann kalladi hann Siba (Sjø) þadan hefur stadurinn nafnid Berseba allt til þessa dags. 34. Og Esau var 40 ára gamall, þá hann tók sér konu Judit Beris dóttur, Hetitans, og Basemat dóttur Elons Hetita. 35. Og þær voru Isaak og Rebekku hjartans raun.

## 27. Kapítuli.

*Jakob nær med rádum módur sinnar blessun fødur síns frá bródur sínum Esau. Verdur því fyrir hans hatri.*

1. Og þad skédi þá Isaak var ordin gamall, og augu hans døprudust svo hann gat ekki sjed, ad hann kalladi á Esau son sinn, þann eldri, og mælti til hans: sonur minn! og hann sagdi til hans: hér em eg. 2. Og hann sagdi: sjá! eg er ordin gamall, og veit ei nær eg muni deya, 3. tak þú nú veidarfæri þín, pílnakoffur og boga, og far útá mørkina og veid þú mér villudýr, 4. og matreid mér gódan rétt, eins og mér líkar, og færdu mér svo híngad, ad eg eti, og ad mín sál blessi þig ádur enn eg dey. 5. En Rebekka heyrdi hvad Isaak taladi vid son sinn Esau. Og svo fór Esau útá mørkina, ad veida og sækja villudýr. 6. Þá sagdi Rebekka vid son sinn Jakob og mælti:

V. 21. Sitna dregid af Satan, mótstandari. V. 22. Vídd 9, 27.

heyrdu! eg hefi heyrt fødur þinn tala vid Esau, bródur þinn, og segja: 7. sæk þú mér villudýr, og matreid þú mér gódan rétt, ad eg eti og blessi þig í Drottins augsýn, ádur enn eg dey. 8. Og hlýd þú mér nú, sonur minn! gjørdu sem eg segi þér! 9. far þú til hjardarinnar, og haf híngad til mín twø gód kid, ad eg géti matreidt fødur þínum þar af rétt, sem honum líkar. 10. Og þú skalt færa hann fødur þínum, ad hann eti, og ad hann blessi þig ádurenn hann deyr. 11. Og Jakob sagdi vid Rebekku, módur sína: gádu ad! Esau bródir minn er lodinn, en eg snøggur; 12. líklega þreifar fadir minn á mér, og þyki sem eg vilji blekkja sig; þá leidi eg yfir mig bølvan og ekki blessan. 13. Og módir hans sagdi til hans: yfir mig komi sú bølvan, sonur minn! hlýd þú mér ad eins! fardu og sæktu mér (kidin). 14. Þá fór hann og sókti og færdi þau módur sinni. Og módir hans matreiddi gódan rétt, eins og hans fødur líkadi. 15. Og Rebekka tók klædi, hins eldra sonar síns Esaus, þau bestu, sem hún hafdi hjá sér í húsinu, og færdi ýngra son sinn Jakob í þau. 16. en skinnid af kidunum lét hún um hans hendur, og um hálsinn, þar sem hann var hárlaus. 17. og fékk svo Jakob, syni sínum, í hønd braud og þann góda rétt, sem hún hafdi matreidt.

18. Þá gékk hann inn til fødur síns og mælti: fadir minn! og hann ansadi: hér em eg: hver ertu son minn? 19. Og Jakob sagdi til fødur síns: eg em Esau þinn frumgétin son; eg hefi gjørt eins og þú sagdir mér. Rís þú upp, og sit, og et af minni villibrád, svo þín sál blessi mig. 20. Og Isaak sagdi til sonar síns: hvernig gatst þú svo fljótt fundid þad, sonur minn? og hann mælti: Drottinn, þinn Gud, lét þad mæta mér. 21. Og Isaak sagdi til Jakobs: kom þú samt nær, sonur minn! ad eg þreifi á þér, og viti hvert þú ert sonur minn Esau, eda ekki. 22. Og Jakob gékk til Isaaks, fødur síns, og hann þreifadi á honum og mælti: røddin er Jakobs rødd en hendurnar eru Esaus hendur. 23. Og hann þekkti hann ekki; því hendur hans voru lodnar, eins og hendur Esaus, bródur hans; og hann blessadi hann, 24. og hann mælti: þú ert þá Esau sonur minn? og hann mælti: eg er þad. 25. Þá sagdi hann: kom þú þá med þad, ad eg eti af villibrád sonar míns, uppá þad ad mín sál blessi þig. Og hann færdi honum þad, og hann át; og hann færdi honum vín, og hann drakk. 26. Og Isaak, fadir hans, sagdi til hans: kom þú nær og kyss þú mig, sonur minn! 27. Og hann gékk til hans og kyssti hann. Þá kénndi hann ilm af hans klædum, og blessadi hann og mælti: sjá! ilmurinn af syni mínum er sem ilmur af þeim akri sem Drottinn hefur blessad. 28. Gud gefi þér døgg himins, og feiti jardar og gnægd korns og víns! 29. Þjódirnar þjóni þér, og lýdirnir lúti þér; vert þú herra yfir þínum brædrum, og synir módur þinnar skulu þér lúta! bølvadir séu þeir sem bølva þér, og blessadir, þeir sem þig blessa.

30. Og þad skédi, þá Isaak hafdi endad blessan sína yfir Jakob og einmidt þá Jakob var geinginn út frá Isaak fødur sínum, kom Esau, bródir hans, heim frá veidum sínum. 31. Og hann matreiddi líka gódan rétt, og bar inn til fødur síns, og mælti vid fødur sinn: rístu upp, fadir minn! og et af villibrád sonar þíns, svo ad þín sál blessi mig. 32. Og Isaak fadir hans, sagdi vid hann: hver ert þú? og hann mælti: eg er þinn son, þinn frumgétin son, Esau. 33. Þá vard Isaak ákaflega billt vid, og mælti: hver var þad þá sem veiddi villidýrid og færdi mér? og eg át þar af ádur enn þú komst og blessadi hann og hann mun vera blessadur. 34. En sem Esau heyrdi

þessi ord fødur síns, hljódadi hann beisklega
hástøfum úr hófi uppyfir síg og mælti vid
fødur sinn: blessa þú mig líka, fadir minn!
35. Og hann mælti: bródir þinn hefur komid
med kjænsku og tekid þína blessan. 36. Og
hann mælti: réttnefndur er hann Jakob; tvisvar
hefur hann tekid um hælinn á mér (prettad
mig) minn frumburdar rétt hefur hann tekid, og
nú nádi hann minni blessan! og hann mælti:
hefur þú þá einga blessan ætlad mér. 37. Og
Isaak svaradi og sagdi til Esau: sjá! eg hefi
sett hann herra yfir þig, og eg gjørdi alla
hans brædur ad hans þrælum, eg hefi líka sjed
honum fyrir korni og víni; hvad gét eg þá
gjørt vid þig, sonur minn? 38. Og Esau
mælti vid fødur sinn: hefur þú ekki nema þessa
eina blessan, fadir minn? blessa mig líka, fadir
minn! Og Esau hóf upp sína raust og grét.
39. Þá svaradi Isaak fadir hans og mælti til
hans: sjá! feiti jardarinnar mun vera þinn
bústadur, og døgg himinsins þar ofanad, 40.
og af sverdi þínu muntu lifa, og þínum brædr-
um þjóna, en þad fer svo, þegar þú slítur
þig lausann, þá hristir þú okid af þínum hálsi.
41. Og Esau hatadist vid Jakob sakir þeirr-
ar blessunar sem hans fadir hafdi hann bless-
ad. Og Esau sagdi í sínu hjarta: sorgar dagar
munu koma yfir fødur minn, því drepa mun eg
Jakob bródur minn! 42. Þá báru menn Re-
bekku þessi ord Esaús hennar eldri sonar; og
hún sendi eptir Jakob yngri syni sínum og
mælti vid hann: sjá! Esau bródir þinn vill
hefnast á þér svoleidis ad hann drepi þig. 43.
Og nú, son minn! hlýddu nú minni raust, og
tak þú þig til og flýdu til Labans bródur míns
í Haran, 44. og vertu hjá honum nokkurn
tíma, þángad til heipt bródur þíns snýr sér,
45. þángad til brædi bródur þíns snýr sér frá
þér; og hann gleymir því sem þú hefur hon-
um gjørt; þá vil eg senda og láta sækja þig
þadan. Hvarfyrir skyldi eg missa ykkur báda
á einum degi.
46. Og Rebekka taladi vid Isaak og mælti:
þær Hets dætur gjøra mér lífid leidt, tæki Ja-
kob sér konu af Hets dætrum, eins og þessar,
af dætrum landsins, hví skyldi eg þá lifa.

## 28. Kapítuli.

1.) Jakob fer til Mesopotamíu. 2.) Esau giftist dótt-
ur Ismaels. 3.) Jakobs vitran í Betel.

1.) 1. Þá kalladi Isaak til sín Jakob, og
blessadi hann og baud honum og sagdi til hans:
þú skalt einga konu taka af Kanaans dætrum.
2. Taktu þig heldur upp og far til Mesopota-
míu, í hús Betuels módur fødur þíns, og tak
þér þadan konu af dætrum Labans módurbród-
ur þíns. 3. Sá almáttugi Gud blessi þig og
gjøri þig frjóssamann, og auki ætt þína, svoad
þú verdir ad mikilli þjód! 4. Hann géfi þér
Abrahams blessan, þér og þínum nidjum med
þér, ad þú meigir eignast þad land sem þú býr
í, sem Gud gaf Abraham. 5. Svo lét Isaak
Jakob frá sér, og sendi hann til Mesopotamíu,
til Labans Betuelssonar hins sýrlendska, sem
var bródir Rebekku, módur Jakobs og Esau.
2.) 6. Og Esau sá ad Isaak hafdi bless-
ad Jakob, og sendt hann í Mesopotamíu til ad
fá sér þadan konu, og hafdi í því hann blessadi
hann, bodid honum og sagt: þú skalt ekki taka
þér konu af Kanaans dætrum, 7. og ad Jakob
var hlýdin fødur sínum og módur sinni, og fór
til Mesopotamíu; 8. þá sá Esau ad Kanaans
dætur gédjudust ekki fødur sínum Isaak. 9.
Og Esau fór til Ismaels, og tók sér konu
Mahalat, dóttur Ismaels Abrahamssonar, systur
Nabajots, auk þeirra kvenna sem hann átti ádur.

V. 39. Adrir leggja út: án feiti jardar mun þinn bústadur vera og án daggar af himni. Láta þeir þá þann Hebreska staf: M settan framan vid ord þau er þýda feiti og døgg, þýda: án.

3.) 10. Og Jakob lagdi af stad frá Ber-
seba og kom til Haran. 11. Og hann kom
(á ferdinni) á vissan stad og var þar um nótt,
því sólarlag var komid; og hann tók stein og
lagdi undir høfud sitt, og hann lagdi sig til
svefns, í þeim sama stad. 12. Og hann
dreymdi: — Honum þótti stigi standa á jørdu,
sem nádi til himins, og sjá! einglar Guds fóru
upp og nidur stigann. 13. Og sjá! Drottinn
stód þar uppyfir og sagdi: eg em Drottinn,
Gud Abrahams fødur þíns og Gud Isaaks;
þad land sem þú hvílist á mun eg géfa þér og
þinni ætt. 14. Og þínir nidjar skulu verda
sem duft jardar, og þú skalt útbreidast til vest-
urs og austurs, nordurs og sudurs og af þér
munu allar ættir jardarinnar hljóta blessan og
af þínu sædi. 15. Og sjá! eg em med þér og
vardveiti þig hvert sem þú fer, og eg mun apt-
ur flytja þig inní þetta land; því ekki mun
eg sleppa af þér hendinni, þángad til, og hefi
gjørt allt, sem eg hefi vid þig talad. 16. Þá
vaknadi Jakob af sínum svefni og mælti: vissu-
lega er Drottinn á þessum stad, og eg vissi þad
ekki! 17. Og ótta sló yfir hann, og hann
sagdi: þessi stadur er óttalegur! hér er Guds
hús, hér er hlid himinsins! 18. Og Jakob
stód snemma upp um morguninn, og tók stein-
inn, sem hann hafdi haft undir høfdinu, og reisti
hann upp, til merkis, og hellti vidsmjøri yfir
hann. 19. Og hann kalladi þennan stad
Betel, (Gudshús) ádur hét hann Lús. —
20. Og Jakob gjørdi heit og mælti: ef Gud
verdur med mér og vardveitir mig á þessari
ferd sem eg nú fer, og géfur mér braud ad eta
og klædir mig, 21. og komi eg farsællega apt-
ur heim í míns fødurs hús, svo skal Drottinn
vera minn Gud, og þessi steinn, sem eg hefi
uppreist til merkis, skal verda Guds hús;
og allt sem þú géfur mér, þad skal eg tí-
unda þér.

## 29. Kapituli.

*Jakob giftist tveimur dætrum Labans, eignast syni med Leu, verdur audugur.*

1. Og Jakob fór af stad og gékk til lands
austursins sona. 2. Þar litadist hann um, og
sjá! þar var brunnur á mørkinni, og vid hann
lágu þrjár saudahjardir, því þeim átti ad vatna
vid þennan sama brunn; en mikill steinn lá
yfir munna brunnsins. 3. Þángad átti ad
reka allar hjardirnar, velta svo steininum frá
munna brunnsins og vatna fénadinum, sídan
var steininn látinn aptur yfir munna brunns-
ins á sinn stad. 4. Þá sagdi Jakob til þeirra:
brædur mínir! hvadan erud þér? og þeir søgdu:
vér erum frá Haran. 5. Og hann mælti til
þeirra: þekkid þér Laban Nahorsson. Og þeir
søgdu: vér þekkjum hann. 6. Og hann mælti
til þeirra: geingur honum vel? þeir svørudu:
vel geingur honum, og sjá! þarna kémur Rakel
dóttir hans med saudina. 7. Og hann mælti:
sjá! enn er mikid dags eptir; og ekki komin
tími til ad reka féd saman; vatnid saudunum
og rekid þá aptur á beit! 8. Og þeir svørudu:
vér meigum þad ekki fyrr enn allar hjardirnar
koma saman og menn velta steininum frá brunns
mynninu, þá er fénu vatnad. 9. Í því hann
ræddi þetta vid þá, kom Rakel med saudi fød-
ur síns, því hún gjætti þeirra. 10. En sem
Jakob sá Rakel, dóttur Labans módurbródur síns,
og saudi Labans módurbródur síns, þá fór hann
til, og vellti steininum frá munna brunnsins,
og vatnadi saudum Labans, módurbródur síns.
11. Og Jakob kyssti Rakel, og grét hástøfum.
12. Og Jakob sagdi Rakel frá, ad hann
væri ættíngi fødur hennar, sonur Rebekku; en
hún hljóp og sagdi þetta fødur sínum. 13.
Og þad skédi, þá Laban frétti til Jakobs, syst-
ur sonar síns, hljóp hann á móti honum, og
tók hann sér í fadm, og mynntist vid hann, og
leiddi hann í sitt hús; og hann (Jakob) sagdi

Laban frá øllum þessum atburdum. 14. Þá sagdi Laban til hans: sannarlega ertu mitt hold og bein! og hann var hjá honum heilan mánud.
15. Og Laban sagdi vid Jakob: skyldir þú þjóna mér fyrir ekkért, þó þú sért minn ættíngi? seigdu til, hver þín laun skulu vera! 16. En Laban átti tvær dætur, sú eldri hét Lea, en hin ýngri hét Rakel. 17. Lea var augndøpur, en Rakel var bædi vel vaxin og fríd sýnum. 18. Og Jakob elskadi Rakel og sagdi: eg vil þjóna þér í 7 ár fyrir Rakel þína ýngri dóttur. 19. Laban svaradi: þad er betra ad eg géfi þér hana enn ad eg géfi hana ødrum manni. Vertu hjá mér! 20. Svo vann Jakob fyrir Rakel í 7 ár, og þótti honum sem fáir dagar væru, því hann elskadi hana. 21. Og Jakob sagdi vid Laban: fádu mér nú konu mína því tími er til kominn ad eg giftist henni. 22. Þá baud Laban øllum mønnum í þeim stad og hélt veitslu. 23. En um kvøldid tók Laban dóttur sína Leu, og leiddi hana inn til hans og hann lá hjá henni. 24. Og Laban fékk Leu dóttur sinni, ambátt sína Silpu, ad hún væri hennar þerna. 25. En um morguninn, sjá! þá var þad Lea! og hann sagdi til Labans: því gjørdir þú mér þetta! hefi eg ekki unnid þér fyrir Rakel? því hefur þú svikid mig! 26. Og Laban sagdi: þad er ekki sidur hér ad gifta frá sér fyrr þá ýngri dóttur heldur enn þá frumgétnu. 27. Haltu nú þessa, vikuna út, þá skulum vér géfa þér hina líka fyrir þá vinnu sem þú munt vinna mér í ønnur 7 ár. 28. Og Jakob gjørdi svo, og hélt út vikuna. Svo gifti Jakob honum dóttur sína Rakel. 29. Og hann fékk dóttur sinni Rakel ambátt sína Bilu fyrir þernu. 30. Og hann lagdist og med Rakel og elskadi hana meir enn Leu. Og hann vann Laban enn nú í 7 ár.
31. En sem Drottinn sá ad Lea var fyrirlitin, þá gjørdi hann hana frjóssama, en Rakel var ófrjóssøm. 32. Og Lea fékk gétnad og fæddi son, og kalladi hann Ruben (Sjá Son) því hún sagdi: Drottinn hefur sjed mínar raunir, því nú mun madurinn minn elska mig. 33. Og hún vard ólétt aptur og fæddi son, og hún sagdi: Drottinn hefur heyrt ad eg var fyrirlitin, því hefur hann líka géfid mér þennann; og hún kalladi hann Simeon (heyrn). 34. Og enn vard hún ólétt og fæddi son, þá sagdi hún: nú mun madurinn minn hænast ad mér, því eg hefi fædt honum þrjá syni, því kalladi hún hann Levi (medfylgd). 35. Og enn vard hún þúngud og fæddi son og sagdi: nú vil eg vegsama Drottinn, því kalladi hún hann Juda (Gud vegsamadur) og hún hætti ad eiga børn.

## 30. Kapituli.

Børn Jakobs og audsæld.

1. En sem Rakel sá ad hún ól ekki børn med Jakob, þá øfundadi hún systur sína, og sagdi vid Jakob: láttu mig fá barna! annars dey eg. 2. Jakob reiddist þá vid Rakel, og sagdi: er eg þér sá Gud sem fyrirmuni þér lífsávaxtar. 3. Þá sagdi Rakel: þarna er Bila, þerna mín, leggst þú med henni svo hún fædi á mitt skaut og eg hafi lid af henni. 4. Svo gaf hún honum Bilu þernu sína fyrir konu, og Jakob lagdist med henni. 5. Og Bila vard ólétt og fæddi Jakob son. 6. Þá sagdi Rakel: Drottinn hefir dæmt mitt málefni og heyrt mína bæn og géfid mér son; því kalladi hún hann Dan (Dómur). 7. Og Bila ambátt Rakelar vard ólétt í annad sinn og fæddi Jakob annan son, 8. þá sagdi Rakel: eg hefi barist mikin bardaga vid systur mína og hefi líka sigrad, og hún nefndi nafn hans Naftali (minn bardagi). 9. Og sem Lea sá ad hún hægdi á sér ad eiga børn, þá tók hún Silpu þernu sína og fékk Jakob hana fyrir konu. 10. Og Silpa, þerna Leu, fæddi Ja=

kob son; 11. og Lea sagdi: til lukku! og hún nefndi hans nafn Gad (Lukka). 12. Og Silpa, þerna Leu, fæddi Jakob annan son. 13. Þá sagdi Lea: sæl er eg, því dæturnar kalla mig sæla; Og hún nefndi hans nafn Asser (Farsæll).

14. Og þá Ruben gékk einusinni út um hveiti uppskéru tímann, fann hann elskuepli (dudaim) á landinu og færdi Leu módur sinni, þá sagdi Rakel vid Leu: géf þú mér nokkud af elskuepli sonar þíns! 15. Og hún svaradi: er þad ekki nóg ad þú tókst manninn minn, villtu nú líka taka elskuepli sonar míns? Og Rakel mælti: hann má líka sofa hjá þér í nótt fyrir elskuepli sonar þíns. 16. En þegar Jakob kom heim um kvøldid af akrinum, gékk Lea á móti honum og sagdi: hjá mér átt þú ad sofa; því eg hefi keypt þig fyrir elskuepli sonar míns. Svo svaf hann hjá henni þá sømu nótt. 17. Og Gud bænheyrdi Leu, og hún vard ólétt og fæddi Jakob þann fimta son og sagdi: 18. Gud hefur launad mér þad, ad eg gaf manni mínum mína þernu, og þennann kalladi hún Issaskar (þad eru laun) 19. Og Lea vard enn ólétt og fæddi Jakob þann sjøtta son, 20. og Lea sagdi þá: Gud hefur géfid mér fallega gjøf; nú mun madurinn minn hænast ad mér; því eg hefi fædt honum sex syni, og hún nefndi hann Sabulon (Sambúd) 21. Eptir þad átti hún dóttir; hana nefndi hún Dínu. 22. Og Gud minntist Rakelar og bænheyrdi hana og opnadi hennar módur líf; 23. og hún vard ólétt og fæddi son og sagdi: Gud hefir burttekid mína smán, 24. og hún nefndi hann Jósep (bæti hann vid) og sagdi: Gud bæti vid mig ødrum syni!

25. Og þad skédi, þá Rakel hafdi fædt Jósep, ad Jakob sagdi vid Laban: slepp þú mér nú ad eg fari á mínar stødvar og í mitt land, 26. og fádu mér konur mínar og afkvæmi mín, hvar fyrir eg hefi þjónad þér, ad eg géti farid, því þú veitst hvernig eg hefi þér þjónad. 27. Þá sagdi Laban til hans: ó ad eg findi nád í þínum augum! eg hefi tekid eptir því ad Drottinn hefur blessad mig fyrir þínar sakir, 28. og hann mælti: tiltaktu kaup handa sjálfum þér! eg skal svara því. 29. Og hann (Jakob) svaradi: þú veitst sjálfur hvernig eg hefi þjónad þér og hver þín hjørd er ordin hjá mér. 30. Því þad lítid sem þú áttir ádur enn eg kom, hefir margfaldlega aukist, og Drottinn hefir blessad þig fyrir minn fót. Nær skal eg líka vinna fyrir mitt hús? 31. Og Laban mælti: hvad skal eg þá géfa þér? Jakob sagdi: þú skalt ekkért géfa mér, en viljir þú gjøra þetta (sem eg segi) þá vil eg enn nú halda fé þínu til haga og vakta þad. 32. Eg vil í dag gánga um alla þína hjørd, og skilja frá flekkótt og mislitt, og sérhverja svarta kind medal saudanna og þad mislita og flekkótta medal geitanna. Og þetta skal vera mitt kaup. 33. Og réttvísi mín skal seinna meir bera mér vitni, þegar þú kémur og skodar mitt kaup; hvad sem ekki er flekkótt og mislitt medal geitanna og svart medal saudanna, þad skal vera sem stolid hjá mér. 34. Og Laban sagdi: sé þad eins og þú hefur sagt. 35. Og á sama deigi skildi hann Laban frá alla flekkótta og mislita hafra, og allar mislitar og flekkóttar geitur, allt þad sem hafdi á sér einhvern díl, og allt døkkleitt medal saudanna, og fékk þetta sonum sínum, 36. og lét vera þrjár dagleidir milli sín og Jakobs, og Jakob gjætti þeirrar hjardar sem eptir vard. 37. Og Jakob tók sér stafi af grænu popil tré og haslvidi, og kastaníutré, og skóf þar á hvítar rákir, svo þad

V. 32. Ekki þad mislita sem hann skildi frá hjørd Labans, heldur þad sem flekkótt eda mislitt kjæmi, af þeirri eptir ordnu einlitu hjørd, er Jakob enn vildi vakta.

hvíta á støfunum vard bert, 38. og lagdi svo stafina, sem hann hafdi skafid børkinn af, í vatns rennurnar í tryglana þar sem fénadurinn átti ad drekka, fyrir fénadinn, og ærnar feingu rétt í því þær voru ad drekka, 39. og lembdust uppyfir støfunum, og fæddu mislitt, dílótt og flekkótt. 40. Og þau (mislitu) lømb, skildi Jakob frá og lét saudi Labans horfa á þad flekkótta og døkkleita; en gjørdi sér hjørd út af fyrir sig, og lét hana ekki koma saman vid Labans hjørd. 41. Og fyrir augu þess fénadar, sem snemma gékk, lagdi Jakob stafina í rennurnar fyrir hans augu, svo hann skyldi fá, medan hann horfdi á stafina; 42. en lagdi þá ekki fyrir fénadinn, sem seint gékk; svo vard þad sídborna Labans, en hid snemmborna Jakobs. 43. Af þessu vard madurinn stóraudugur, svo hann átti mikin fénad, ambáttir, þræla, úlfalda og asna.

## 31. Kapítuli.

1.) Jakob flýr burt frá Laban med allt sitt. 2.) Laban eltir hann, en sættist vid hann.

1.) 1. Og Jakob frétti ord Labans sona, þeir søgdu: Jakob hefur tekid aleigu fødur vors, og af eigum fødur vors hefur hann grædt allan þennann aud. 2. Og Jakob sá Labans yfirbragd, og sjá! þad var ekki sem ádur. 3. Og Drottinn sagdi til Jakobs: far þú aptur heim í land fødur þíns, og til þíns heimkinnis, því eg mun vera med þér. 4. Þá sendi Jakob og lét kalla þær Rakel og Leu útá mørkina til síns fénadar. 5. Og hann sagdi til þeirra: eg sje ad auglit fødur ykkar er ekki, mér til handa, sem þad var ádur; en Gud fødur míns hefur verid med mér. 6. Og þad vitid þid sjálfar, ad eg hefi þénad fødur ykkar af øllum mætti; 7. en fadir ykkar hefur svikid mig og tíu sinnum skift um laun vid mig; en Gud hefur ekki lofad honum ad gjøra mér skada. 8. Þegar hann sagdi: þad flekkótta skal vera þitt kaup, fæddi allur fénadurinn flekkótt, og þegar hann sagdi: þad mislita skal vera þitt kaup, þá fæddi fénadurinn mislitt. 9. Og Gud hefur tekid fénad ykkar fødurs og géfid mér. 10. Og þad skédi, um þad leiti ad ærnar skyldu lembast, upp hóf eg mín augu og sá í draumi, og sjá! ad hrútar þeir sem stukku uppá ærnar voru flekkóttir, dílóttir og mislitir. 11. Og Eingill Drottins sagdi vid mig í draumi: Jakob! og eg svaradi: hér em eg. 12. Og hann mælti: lít upp þínum augum, og horfdu á! allir þeir hrútar, sem støkkva uppá féd, eru mislitir, flekkóttir og dílóttir; því eg hefi sjed allt sem Laban hefur gjørt þér. 13. Eg em Gudinn í Betel, þar sem þú smurdir steininn, þar sem þú gjørdir mér áheitid. Tak þú þig nú til, far þú burt úr þessu landi og hverf aptur til þinnar ættjardar.

14. Þá svørudu þær Rakel og Lea og søgdu til hans: høfum vid nokkra hlutdeild eda arf í vors fødurs húsi? 15. Erum vér ekki af honum álitnar vandalausar? því hann hefur selt okkur og eydt voru verdi. 16. Allan þann aud sem Gud hefur tekid frá fødur okkar, eigum vid og okkar børn, gjør þú því allt sem Gud hefur sagt þér. 17. Jakob tók sig því upp, og setti børn sín og konur uppá úlfaldana, 18. og hafdi á burt allan sinn fénad og allan þann fjárhlut sem hann hafdi aflad sér, sinn eigin fénad í Mesopotamíu, ad hann kjæmist til Ísaaks fødur síns í Kanaans land. 19. En Laban var farinn ad klippa saudi sína og Rakel stal skurdgodum fødur síns. 20. Og Jakob fór burt svo Laban hinn Syrlendski vissi ekki af, því hann sagdi honum ei frá ad hann flýdi. 21. Og hann flúdi hann og allt hvad hans var, tók sig upp, og fór yfir ána og stefndi á fjallid Gilead.

2.) 22. Og Laban var sagt þad á þridja

deigi ad Jakob væri flúinn. 23. Þá tók hann brædur sína med sér, og fór eptir honum sjö dagleidir, og nádi honum á fjallinu Gilead. 24. En Gud kom um nóttina til Labans, hins Syrlendska, í draumi, og sagdi til hans: gjættu þín! taladu ekkért íllt vid Jakob. 25. Og Laban nádi Jakob. En Jakob hafdi sett tjöld sín á fjallinu, og Laban med brædrum sínum setti og sitt tjald á fjallinu Gilead. 26. Þá mælti Laban vid Jakob: hvad hefur þú gjört, ad þú hefir á laun vid mig farid burt med dætur mínar, eins og þær væru herteknar med sverdi? 27. Því flúdir þú svo leynilega og straukst í burt frá mér og létst mig ekki af vita, ad eg hefdi gétad fylgt þér á veg med fögnudi og med saung, bumbum og Básúnum, 28. og létst mig ekki kyssa mína syni og dætur? nú! þú hefur breitt fávíslega. 29. Eg hefi í hendi mér ad gjöra ydur íllt; en Gud ydar födurs hefur í gjær til mín talad og sagt: gjættu þín, ad þú talir ekki íllt vid Jakob. 30. Og farid hefur þú, af því þig lángadi heim til födur þíns, en því stalstu mínum godum. 31. Þá svaradi Jakob og mælti til Labans: eg var hræddur og hugsadi þú mundir slíta dætur þínar frá mér, 32. en sá skal ekki lifa, sem þú finnur hjá þín god. Leita þú þíns í augsýn vorra brædra hjá mér, og tak þú þitt; en Jakob vissi ekki ad Rakel hafdi stolid godunum.

33. Þá gékk Laban í Jakobs tjald, og Leu tjald og í beggja ambáttanna tjald og fann ekkért; og hann gékk úr Leu tjaldi í Rakelar tjald; 34. En Rakel hafdi tekid skurdgodin, og lagt undir úlfalda dínu og setst þar á. Og Laban leitadi vandlega í öllu tjaldinu og fann ekkért. 35. Og hún sagdi vid födur sinn: herra minn reidist ekki ad eg gét ekki stadid upp á móti þér, því mér geingur eptir kvenna edli. Og hann leitadi og fann ekki skurdgodin. 36. Þá reiddist Jakob, og átaldi Laban og sagdi: hver er mín misgjörd og hver mín synd ad þú eltir mig? 37. Þú hefur leitad í öllum mínum farángri, hvad hefur þú fundid af öllum þínum búshlutum? legg þad hér fram fyrir augu þinna og minna brædra, dæmi þeir milli okkar! 38. En fremur, þau tuttugu ár, sem eg var hjá þér, létu hverki þínar geitur né ær lömbum, og hrúta þinnar hjardar át eg ekki. 39. Hvad sem rifid var (af dýrum) bar eg ekki heim til þín, eg mátti þad bæta; þú heimtir þad af minni hendi, sem stolid var á nótt eda deigi. 40. Eg vanmegnadist á dagin af hita, og á nætur af kulda, og svefninn flúdi mín augu. 41. Tuttugu ár hefi eg þénad í þínu húsi, fjórtán ár fyrir bádar dætur þínar, og í sex ár fyrir þína hjörd; og þú hefur skift um kaup vid mig tíu sinnum. 42. Hefdi ekki Gud födur míns, Abrahams Gud, og Isaaks ótti (Gud) lidsinnt mér, svo hefdir þú nú látid mig fara snaudann; en Gud sá mína mædu og erfidi minna handa, og hann dæmdi í fyrri nótt. 43. Þá svaradi Laban og sagdi vid Jakob: dæturnar eru mínar dætur og synirnir eru mínir synir og fénadurinn er minn fénadur, og allt sem þú sjer er mitt, og mínum dætrum, hvad gét eg gjört þeim eda þeirra sonum sem þær hafa alid? 44. Vel og gott! vid skulum gjöra sáttmála, eg og þú, hann skal vera til vitnisburdar milli mín og þín. 45. Þá tók Jakob stein og reisti hann upp sem merki. 46. Og Jakob sagdi til sinna brædra: safnid saman steinum! og þeir söfnudu steinum og gjördu grjót hrúgu, og þeir mötudust á hrúgunni. 47. Og Laban kalladi hana: Jegar Sahabuta, en Jakob kalladi hana Gilead (Galed) (vitnis hrúgu). 48. Og Laban mælti: þessi hrúga skal vera vitni í dag milli mín og þín; því kallar madur hennar nafn (Galed), 49. og Mispa

V. 47. Adrir lesa Galed fyrir Gilead.

(sjónar hæd) því hann sagdi: Drottinn áliti vor vidskifti, þegar vid nú skiljum, 50. ad þú ekki leggist á dætur mínar og takir konur auk þeirra. Eingin madur er hjá okkur, sjá! Gud er vitni milli mín og þín. 51. Og Laban sagdi vid Jakob: sjá! þessa hrúgu og þetta merki sem eg hefi upp reist milli mín og þín. 52. Vitni sé þessi hrúga, vitni sé þetta merki, ad hverki skuli eg gánga fram hjá þessari hrúgu til þín, né þú gánga fram hjá þessari hrúgu og þessu merki, mér til ílls. 53. Gud Abrahams og Gud Nahors, Gud fedra þeirra sé dómari milli okkar, þá sór Jakob vid síns fødurs Isaaks ótta (Gud). 54. Og Jakob færdi fórnir á fjallinu og baud sínum brædrum til máltídar, og þeir møtudust og voru á fjallinu um nóttina. 55. En um morguninn var Laban snemma á fótum, og minntist vid sína syni og vid sínar dætur og blessadi þær, og fór af stad, og héllt heim til sín.

## 32. Kapituli.

1.) Jakob óttast hefnd af Esau. 2.) Blídkar hann med gjøfum. 3.) Fær nafnid Israel.

1.) 1. En Jakob fór sína leid; þá mættu honum Einglar Guds. 2. Og hann sagdi er hann sá þá: þetta eru herbúdir Guds! og hann kalladi þann sama stad Mahanaim. 3. Og Jakob gjørdi sendimenn á undan sér til móts vid Esau bródur sinn til landsins Seir, landsins Edom. 4. Og hann baud þeim og sagdi: segid herra mínum Esau, svo segir þinn þénari Jakob: eg hefi verid utanlands, hjá Laban, þángad til nú; 5. og eg hefi eignast uxa og asna, saudi og þræla og ambáttir, og nú hefi eg sendt til míns herra, ad láta hann vita þad, til þess ad finna nád í þínum augum. 6. Og sendimennirnir komu aptur til Jakobs og søgdu: vér komum til bródur þíns Esau, hann fer á móti þér med 4 hundrud manns. 7. Þá vard Jakob mjøg hræddur og kvídafullur; og hann skifti fólkinu sem med honum var, og saudum og nautum og úlføldum, í tvo flokka; 8. því hann hugsadi: þó Esau yfirfalli annan flokkinn og drepi allt nidur, þá getur skéd ad sá annar komist undan.

2.) 9. Og Jakob sagdi: Gud fødur míns Abrahams, og Gud fødur míns Isaaks, Drottinn, þú sem sagdir vid mig: snú þú aptur til þíns lands og til þíns heimkinnis, eg vil gjøra vel vid þig, 10. ómaklegur er eg allrar þeirrar miskunar og trúfesti sem þú hefur audsýnt þjóni þínum; því med stafinn minn einan fór eg yfir þessa Jórdan, en nú er eg ordinn ad tveimur fylkíngum; 11. frelsa mig af hendi bródur míns, af hendi Esau, því eg er hræddur vid hann, og óttast ad hann yfirfalli mig, og drepi líka mædurnar med børnunum. 12. Þú hefir sagt: eg mun veita þér velgjørnínga og gjøra þína nidja sem sjáfar sand, sem ekki verdur talinn fyrir fjølda sakir. 13. Og hann var þar um nóttina, og tók af því, sem hann hafdi hjá sér, gáfur handa bródur sínum Esau, 14. tvø hundrud geitur, tuttugu geithafra, tvø hundrud ásaudi, tuttugu hrúta, 15. þrjátíu mylka úlfalda med þeirra foløldum, fjørutíu kýr og tíu naut (bola) tuttugu øsnur og tíu asna; 16. og hann fékk þetta í hendur sínum þjónum; hverjum hjørd út af fyrir sig, og mælti vid sína þjóna: farid á undan mér, og látid vera bil á milli hjardanna. 17. Svo baud hann þeim fyrsta og mælti: þegar Esau bródir minn mætir þér og spyr þig og segir: hverjum heyrir þú til? og hvert ætlar þú? og hver á þetta, sem þú rekur undan þér? 18. Þá skaltu segja: þínum þénara Jakob tilheyri eg; gáfa þessi er sending til míns herra Esau, og hann er hér á eptir okkur. 19. Og hann baud hid sama þeim ødrum og þridja og øllum þeim sem ráku hjardirnar, og mælti: þessi

ord skulud þér tala vid Esau, þegar þér hittid hann; 20. og þér skulud líka segja: sjá! þénari þinn Jakob kémur á eptir okkur líka. Því hann hugsadi: eg skal blídka hann med gáfum, sem eg sendi á undan mér, og þar eptir skal eg finna hann; kannské hann géti þá sjed mig. 21. Svo fór gáfan á undan honum, en hann var þá sømu nótt í sínum áfángastad.

3.) 22. Og hann stód upp þá sømu nótt og tók bádar konur sínar, og bádar sínar ambáttir og sín ellefu børn, og fór ad vadinu á Jabok, 23. og flutti yfir ána, og fór med allt, sem hann átti, yfir ána. 24. En Jakob vard einn eptir, og madur nokkur glímdi vid hann þángad til dagadi. 25. Og sem hann sá ad hann gat ekki fellt hann, snart hann hans mjadmar skál, og Jakobs mjødm skékktist í lidi í því hann glímdi vid hann; 26. og hann sagdi vid hann: slepptu mér, því nú dagar. Og hann svaradi: eg sleppi þér ekki nema þú blessir mig. 27. Og hann sagdi: hvert er nafn þitt. Hann svaradi: Jakob. 28. Og hinn sagdi: nafn þitt skal ekki leingur vera Jakob, heldur Israel; því þú hefur glímt vid Gud og menn og feingid sigur. 29. Og Jakob spurdi og mælti: seigdu mér þó nafn þitt! og hann svaradi: hvers vegna spyr þú ad mínu nafni? Og hann blessadi hann þar. 30. Og Jakob nefndi þennan stad Pniel (Guds auglit) „því sjed hefi eg Gud bersýnilega, og líf mitt er frelsad" 31. Og sem hann fór frá Pniel, rann sólin upp; og hann var haltur í mjødminni. 32. Því eta Israels synir ekki aflsínina, þá sem er yfir mjadmar holunni, því hann snart aflsín Jakobs mjadmar skálar.

## 33. Kapítuli.

1.) Þeir brædur Esau og Jakob finnast. 2.) Jakob kémur til Kanaans lands.

1.) 1. Og Jakob upplypti sínum augum og sá Esau koma og med honum 4 hundrud manns; þá skifti hann børnunum til Leu og Rakelar og til beggja ambáttanna, 2. og lét ambáttirnar og þeirra børn vera á undan, svo Leu og hennar børn þar næst, og Rakel og Jósep aptast. 3. Og hann gékk sjálfur á undan þeim, og laut sjøsinnum til jardar ádur enn hann kom til bródur síns, Esau. 4. Þá hljóp Esau á móti honum og umfadmadi hann, og féll um háls honum og kysti hann. Og þeir grétu. 5. Og Esau leit upp og sá konurnar og børnin og mælti: hvad hefur þú þar? Og hann svaradi: þau børn sem Gud hefur géfid þjón þínum. 6. Þá geingu ambáttirnar nær og þeirra børn og hneigdu sig. 7. Og Lea gékk og nær og hennar børn og hneigdi sig, þar eptir kom Jósep og Rakel og hneigdi sig. 8. Og Esau mælti: hvad vilt þú med allan þann flokk sem kom á móti mér? Og hinn svaradi: ad eg finni nád í augum míns herra. 9. Og Esau sagdi: eg á nóg, bródir minn! eig þú þitt! 10. Og Jakob sagdi: nei! ekki þad! hafi eg fundid nád í þínum augum, svo tekur þú vid þessu af minni hendi, því eg sá þitt andlit sem madur sjer Guds andlit, og þú tókst nádarsamlega á móti mér; 11. taktu þó vid minni gáfu, sem þér var færd, því Gud hefir verid mér gódur, og eg hefi nóg eptir. Og hann lagdi ad honum, en hinn tók vid. 12. Og Esau sagdi: tøkum okkur nú upp og høldum áfram, og eg skal fara á undan. 13. Og Jakob svaradi honum: þú sjer, herra minn! ad børnin eru úng, og hér eru ær og nýbornar kýr hjá mér, og væri haldid áfram heilan dag, þá mundi øll hjørdin drepast. 14. Fari minn herra á undan sínum þjón; en eg mun reka í hægdum mínum á eptir, eins og hjørdin gétur farid, sem eg rek, og børnin, þángad til eg kémst til míns herra í Seir. 15. Og Esau sagdi: Eg vil láta nokkra af þeim mønnum

sem med mér eru, verda eptir hjá þér. Hinn svaradi: hver þørf er á því? Lát mig ad eins finna nád í augum míns herra. 16. Svo fór Esau þann sama dag leidar sinnar heim aptur til Seir.

2. 17. Og Jakob tók sig upp og fór til Sukot, og bygdi sér þar hús, gjørdi líka laufskála handa sínum fénadi; því kallast sá stadur Sukot (Skáli.) 18. Og Jakob kom heill á hófi til stadarins Sikem sem er í Kanaans landi, þegar hann kom heim úr Mesopotamiu, og hann tjaldadi fyrir utan stadinn, 19. og hann keypti þad litla land sem hann tjaldadi á, af børnum Hemors, sem var fadir Sikems, fyrir hundrád peninga. 20. Og hann bygdi þar altari, og kalladi þad, Guds, Israels Guds (altari).

## 34 Kapítuli.

1.) Hemor bidlar til Dinu. 2.) Synir Jakobs eydileggja Sikem med svikum.

1.) 1. Og Dina dóttir Leu, er hún hafdi fædt Jakob, gékk út ad sjá landsins dætur. 2. Þá sá Sikem hana, sonur Hemors, Hevita, landsins høfdíngja, og hann tók hana, og lagdist med henni og spjalladi hana. 3. Og hans hjarta hékk vid Dinu Jakobsdóttur, og hann elskadi stúlkuna og huggadi hana. 4. Og Sikem kom ad máli vid fødur sinn Hemor og mælti: taktu mér þessa stúlku fyrir konu! 5. Og Jakob frétti ad hans dóttir Dina var ósæmd, en synir hans voru med hjardir sínar út í høgum, og Jakob var hljódur um þetta þángad til þeir komu. 6. Þá gékk Hemor, fadir Sikems, út til Jakobs, til ad tala vid hann. 7. Og synir Jakobs komu heim af mørkinni; þegar þeir heyrdu þetta, styggdust mennirnir og urdu mjøg reidir, því hann (Sikem) hafdi adhafst vondsku verk móti Israel, med því ad leggjast med dóttur Jakobs, því þad átti ekki ad vera. 8. Þá taladi Hemor vid þá og mælti: Hjarta Sikems, sonar míns, elskar innilega ydar dóttur, géfid honum hana, eg bid ydur, fyrir konu. 9. Gjørid mægdir vid oss, géfid oss ydar dætur, og takid ydur vorar dætur, 10. og búid hjá oss, landid skal vera ydur opid, búid þar, hafid ydar sýslanir, og eignist í því stadfestu. 11. Og Sikem taladi vid fødur hennar og brædur hennar og mælti: látid mig finna nád í ydar augum, og eg skal géfa þad sem þér segid mér. 12. Heimtid af mér mikid, sem verd hennar og gáfu, og eg skal láta þad af hendi eins og þér segid mér! en géfid mér stúlkuna fyrir konu! 13. Jakobs synir svørudu þeim Sikem og fødur hans Hemor med undirhyggju og høfdu brøgd vid, af því hann hafdi ósæmt Dinu þeirra systur. 14. Ekki gétum vér gjørt þetta, géfid systur vora óumskornum manni; því oss væri þad skømm. 15. Einasta med því skilyrdi viljum vér gjøra ydur til vilja, ad þér verdid eins og vér, med því ad umskéra allt kallkyns hjá ydur. 16. Vér skulum þá géfa ydur vorar dætur og taka oss ydar dætur, og búa hjá ydur, og verda ad einni þjód; 17. en ef þér hlýdnist oss ekki í þessu, ad umskérast, þá tøkum vér vora dóttur og førum burt.

18. Og þetta tal líkadi Hemor og Sikem syni Hemors. 19. Og sá úngi madur frestadi ekki ad gjøra þad sem áskilid var, því hann elskadi dóttur Jakobs, en hann var haldinn allra ágjætasti madur í fødur síns húsi. 20. Og Hemor og Sikem sonur hans komu í borgar hlidid, og tøludu vid menn stadarins og søgdu: 21. Þessir menn eru fridsamir vid oss, þeir meiga búa í landinu og hafa í því alla hentisemi, sjáid! landid er nógu rúmgott handa þeim á breidd og leingd; vér munum taka þeirra dætur oss fyrir konur, og vorar dætur viljum vér géfa þeim! 22. En því ad eins vilja mennirnir vingast vid oss, og búa

vor á medal, og verda ad einni þjód med oss, ad vèr látum allt kallkyn medal vor umskérast, eins og þeir eru umskornir. 23. Þeirra hjardir og þeirra fjárhlutir og þeirra fénadur, mun ei allt þad verda vort? látum oss ad eins vingast vid þá, ad þeir búi hjá oss! 24. Og þeir hlýdnudust Hemor og hans syni Sikem, allir sem útgeingu um hlid hans stadar, og létu sig umskéra, allt kallkyn, þeir sem útgeingu um hlid hans stadar.

2.) 25. Og þad skédi á þridja deigi, þegar þeim var sem vidkvæmast, þá tóku þeir synir Jakobs, Simeon og Levi, brædur Dinu, hver sitt sverd, og yfirféllu stadinn djarflega og drápu þar allt kallkyn. 26. Þeir drápu líka Hemor og son hans Sikem med sverds eggjum, og tóku Dinu úr húsi Sikems, og fóru svo. 27. En synir Jakobs yfirféllu þá sem drepnir høfdu verid, og rændu stadinn, af því þeir høfdu gjørt ósæmd systir þeirra. 28. Og þeir tóku þeirra saudi og þeirra naut og þeirra asna og allt sem í stadnum var og í høgunum; 29. og alla þeirra fjárhluti; og øll þeirra børn, og þeirra konur tóku þeir sem herfáng, og allt sem var í húsunum. 30. Og Jakob sagdi vid Simeon og Levi: þid hafid stofnad mér til ólukku, med því ad gjøra mig óþokkadann vid landsmennina, vid Kananita og Ferisita; eg er lidfár og þeir munu samansafnast móti mér og drepa mig, og eg verd afmádur, eg og mitt hús. 31. Og þeirr svørudu: átti hann þá ad fara med systur okkar eins og med skjæku?

## 35. Kapítuli.

1.) Jakob kémur til Betel. 2.) Rakel andast. 3.) Nøfn Jakobs sona. 4.) Isaak andast.

1.) 1. Og Gud sagdi vid Jakob: tak þú þig upp, og far til Betel og vertu þar, og bygdu þar altari þeim Drottni, sem vitradist þér þegar þú flúdir, fyrir bródur þínum Esau! 2. Og Jakob sagdi vid sitt hús og alla sem med honum voru: kastid burt þeim útlendu godum sem hjá ydur eru, og hreinsid ydur og hafid fataskifti. 3. Vér skulum taka oss upp og fara til Betel, þar vil eg byggja altari þeim Gudi sem hefur bænheyrt mig á deigi minnar mædu, og hefur verid med mér á þeim veigi sem eg hefi farid. 4. Og þeir feingu Jakob øll þau útlendu god sem þeir høfdu hjá sér, og eyrnagull sem þeir høfdu í eyrunum, og Jakob gróf þetta nidur undir tré sem stód hjá Sikem. 5. Svo tóku þeir sig upp. Og Guds hrædsla var yfir øllum stødunum í kríngum þá, svo menn elltu ekki Jakobs syni. 6. Og Jakob kom til Lús, þad er: Betel í Kanaans landi, hann og allt þad fólk sem med honum var. 7. Og hann bygdi þar altari og kalladi (stadinn) altarid: altari Guds í Betel, því Gud hafdi birtst honum þar, þegar hann flúdi fyrir bródur sínum. 8. Þar andadist Debóra fóstra Rebekku, og var jørdud fyrir nedan Betel undir eik nokkurri, og þá eik kalladi hann Grátteik (Atlon Bakat).

9. Og Gud birtist Jakob í annad sinn frá því hann kom til baka úr Mesopotamiu og blessadi hann og sagdi til hans: 10. þú heitir Jakob, en þú skalt ekki heita Jakob hér eptir, heldur skal nafn þitt vera Israel. Og þadan af nefndi hann sig Israel. 11. Og Gud sagdi til hans: eg em Gud, sá almáttugi, vertu frjóssamur og fjølga kyni þínu, þjódir og þjódflokkar skulu af þér koma, og Kóngar af þínum lendum. 12. Og land þad sem eg hefi géfid Abraham og Isaak skal eg géfa þér og þínum nidjum eptir þig. 13. Svo fór Gud upp frá honum, úr þeim stad, hvar hann taladi vid hann. 14. Og Jakob reisti þar upp merki, á þeim stad hvar Gud taladi vid hann, merkisstein, og hellti yfir hann víni og vidsmjøri.

15. Og Jakob kalladi þann stad, hvar Gud taladi vid hann, Betel (Gudshús).

2.) 16. Og þeir tóku sig upp frá Betel; en sem þeir áttu skamt til Effrat tók Rakel léttasótt, og hún kom hart nidur. 17. Og þad skédi, þá hún þjádist þúnglega í barn burdinum, sagdi ljósmódirin til hennar: vertu óhrædd, því son muntu nú eignast! 18. Og þad skédi, þá øndin leid upp af henni, svo hún dó, ad hún nefndi son sinn Benoni, (minn harmkvæla son) en fadir hans nefndi hann Benjamin (lukku son). 19. Og svo dó Rakel, og var jørdud á veiginum til Effrat, þad er: Betlehem. 20. Og Jakob reisti minnismerki yfir hennar grøf, þad er bautasteinn Rakelar allt til þessa dags.

3.) 21. Og Israel tók sig upp þadan og setti tjaldbúd sína hinumeigin vid turninn Eder (Smalaturn). 22. Og þad skédi medan Israel bjó þar í landinu, ad Ruben fór og lagdist med Bilu, hjákonu fødur síns, og Israel fékk þad ad vita. 23. Jakob átti 12 syni; synir Leu voru þessir: Ruben, sá frumgétni sonur Jakobs, og Simeon, og Levi, og Juda og Issaskar og Sebulon. 24. Synir Rakelar: Josep og Benjamin. 25. Og synir Bilu, þernu Rakelar: Dan og Neftali. 26. Og synir Silpu, þernu Leu: Gad og Asser. Þetta eru synir Jakobs sem honum fæddust í Mesopotamiu.

4.) 27. Og Jakob heimsókti fødur sinn Isaak í Mamre Kirjat-Arba, þad er Hebron, hvar Abraham og Isaak høfdu verid. 28. Dagar Isaaks voru hundrad og áttatíu ár. 29. Og hann veiktist og dó, og safnadist til síns fólks, aldradur og saddur lífdaga, og þeir synir hans, Esau og Jakob, jørdudu hann.

## 36. Kapítuli.

Esau ættartala.

1. Þetta er ættartala Esau sem nefndist Edom (25, 30). 2. Esau tók sér konur af Kanaans dætrum, Ada dóttur Elons, Hetíta; og Ahalibama, dóttur Anas, sem var sonardóttir Sibeons, Hevíta, 3. og Basmat Ismaelsdóttur systur Nebajots. 4. Og Ada fæddi Esau Elifas, en Basmat Reguel. 5. Ahalibama fæddi Jehús, Jaelam og Kóra. Þessir eru þeir synir sem Esau fæddust í Kanaans landi. 6. Og Esau tók konur sínar og syni sína og dætur sínar, og allar sálir síns húss, og hjardir sínar og kvikfénad, og alla þá fjárhluti sem honum høfdu aflast í Kanaans landi, og færdi sig í annad land frá Jakob bródur sínum. 7. Því þeirra audur var meiri enn svo ad þeir gjætu saman búid, og þad land, sem þeir voru í, bar þá ekki, søkum þeirra hjarda. 8. Svo bjó Esau á fjallinu Seir. Esau er Edom. 9. Þetta er saga Esau, fødur Edomita á fjallinu Seir. 10. Þetta eru nøfn Esau sona: Elifas sonur Ada, konu Esau, Reguel, sonur Basmat konu Esau. 11. En þessir voru Elifassynir: Teman og Omar, Sefo Gaetam og Kenas. 12. Og Timna var hjákona Elifasar sonar Esau, hún fæddi honum Amalek. Þetta eru synir Ada, konu Esau. 13. Og synir Reguels: Nahat og Sera, Samma og Missa. Þad voru synir Basmat konu Esau. 14. Og þessir voru synir Ahalibamu, dóttur Anas, dóttur Sibeons, konu Esau, hún fæddi Esau: Jehus og Jaelam og Kóra. 15. Þessir eru høfdíngjar Esau nidja. Synir Elifasar, Esau frumgétna sonar eru: høfdínginn af Teman, høfdínginn af Omar, høfdínginn af Sefo, høfdínginn af Kenas. 16. Høfdínginn af Kóra, høfdínginn af Gaetam, høfdínginn af Amalek. Þessir høfdíngjar eru komnir af Elifas, í landinu Edom, og eru nidjar Ada. 17. Þessir eru synir Reguels, sonar Esau: høfdínginn af Nahat, høfdínginn af Sera, høfdínginn af Samma, høfdínginn af Missa. Þessir høfdíngjar eru komnir af Re-

guel í landinu Edom, og nidjar Basmat, konu Esau. 18. Og þessir eru synir Ahalibømu, konu Esau: høfdínginn af Jehus, høfdínginn af Jaelam, høfdínginn af Kóra. Þetta eru høfdíngjarnir af Ahalibømu, dóttur Anas, konu Esau. 19. Þessir eru nidjar Esau og høfdíngjar þeirra, hann hinn sami er Edom. 20. Þetta eru synir Seirs, Hóritans, innbúar landsins: Lotan og Sobal og Sibeon og Ana, 21. og Dison og Eser og Disan. Þad eru høfudsmenn Hóritanna, sona Seirs í landinu Edom. 22. Og Lótans synir voru: Hori og Heman og systir Lótans Timna. 23. Og þetta eru synir Sobals: Alvan og Manahat og Ebal, Sefo og Onam. 24. Og þetta eru synir Sibeons: Aja og Ana; þad er sá Ana sem fann laugarnar í Obygdinni, þá hann geymdi asna fødur síns Sibeons. 25. Og þetta eru synir Anas: Dison og Ahalibama dóttir Anas. 26. Og þessir eru synir Disons: Hemdan og Esban og Jetran og Karan. Þessir eru Esers synir: Bilkan og Savan og Akan. 28. Þetta eru synir Disans: Us og Aran. 29. Þetta eru høfdíngjar Hóritanna: høfdínginn af Lotan, høfdínginn af Sobal, høfdínginn af Sibeon, høfdínginn af Ana. 30. Høfdínginn af Dison, høfdínginn af Eser, høfdínginn af Disan. Þessir eru høfdíngjar Hóritanna, þeirra høfudsmenn í landinu Seir.

31. Þessir eru þeir kóngar sem ríkt hafa í landinu Edom; ádurenn kóngar ríktu yfir sonum Israels. 32. Bela var kóngur í Edom, sonur Beors, og nafn hans stadar Dinhaba. 33. Og Bela dó, þá vard kóngur í hans stad Jobab, sonur Seras frá Bosra. 34. Og Jobab dó, þá vard kóngur í hans stad Husam úr Temonita landi. 35. Og Húsam dó, þá vard kóngur í hans stad Hadad sonur Bedads; hann vann sigur á Midianitum á Móabs vøllum; og hans stadar nafn var Avit. 36. Og Hadad dó, þá vard kóngur í hans stad Samla frá Masreka. 37. Og Samla dó, þá vard kóngur í hans stad Sál frá Rehobot hjá ánni. 38. Og Sál dó, þá vard kóngur í hans stad Baal-Hanan, sonur Akbors. 39. Og Baal Hanan, sonur Akbors, dó, þá vard kóngur í hans stad, Hadar, og nafn hans stadar var Pagu, og nafn hans konu Metabeel, dóttir Matreds, dóttir Mesuhabs.

40. Og þetta eru nøfn høfdíngjanna af Esau ætt, eptir þeirra ættkvíslum, eptir þeirra bústødum, eptir þeirra nøfnum: høfdínginn af Timna, høfdínginn af Alva, høfdínginn af Jetet, 41. høfdínginn af Ahalibama, høfdínginn af Ela, høfdínginn af Pinon. 42. Høfdínginn af Kenas, høfdínginn af Teman, høfdínginn af Mibsar. 43. Høfdínginn af Magdiel, høfdínginn af Isam. — Þetta eru høfdíngjar Edomita, eptir þeirra bústødum, í því landi sem þeir áttu. En Esau er fadir Edomita.

## 37. Kapituli.

*Jósep dreymir — er seldur mansali af brædrum sínum.*

1. Og Jakob bjó í því landi, hvar fadir hans hafdi verid, í Kanaanslandi. 2. Þetta er Jakobs saga: Jósep var 17 ára gamall þá hann gjætti sauda med brædrum sínum; en hann var sveinn med sonum Bilu og sonum Silpu, sem voru hjákonur fødur hans. Og Jósep sagdi fødur sínum frá þeirra vonda ríkti. 3. En Israel elskadi Jósep meir enn alla sína syni, því hann hafdi átt hann í elli sinni; og hann gjørdi honum mislitan kirtil. 4. En sem brædur hans sáu, ad fadir þeirra elskadi hann meir enn alla hans brædur, høtudu þeir hann, og gátu ei talad vid hann vinsamlegt ord.

5. Og Jósep dreymdi draum, og sagdi hann brædrum sínum; þeir høtudu hann því meir. 6. Og hann sagdi vid þá: heyrid þó þennan draum, sem mig dreymdi! 7. Sjá! vér bund-

um vor kornbindi á akrinum, og mitt kornbindi reisti sig upp og stód, og ydar kornbindi snéru sér ad og lutu mínu kornbindi. 8. Þá sögdu brædur hans vid hann: munt þú verda Kóngur yfir oss, munt þú drottna yfir oss? og þeir hötudu hann því meir, bædi sakir draumsins og hans orda. 9. Hann dreymdi aptur annan draum, og hann sagdi hann brædrum sínum líka, og mælti: mig hefur aptur dreymt draum, og sjá! Sólin, túnglid og ellefu stjörnur lutu mér. 10. Hann sagdi þennan draum födur sínum og brædrum sínum, en fadir hans ávítti hann og sagdi: hvada draumur er þetta sem þig hefur dreymt? eigum vér ad koma, eg og módir þín og brædur þínir og falla fram fyrir þér? 11. Og hans brædur öfundudu hann; en fadir hans geymdi þetta hjá sér.

12. Og brædur hans fóru ad halda hjördum födur síns á haga í Sikem. 13. Þá mælti Ísrael vid Jósep: hafa ekki brædur þínir hjördina á beit í Sikem? heyrdu! eg ætla ad senda þig til þeirra! og hann svaradi: hér em eg! 14. Og hann sagdi til hans: far þú þá, og vit þú hvert brædrum þínum lídur vel og hjördinni, og láttu mig svo vita þad! Og sídan sendi hann Jósep úr dalnum Hebron; og hann fór til Sikem. 15. Þá hitti hann madur nokkur, og sjá! hann viltist á mörkinni; og madurinn spurdi hann og mælti: ad hverju leitar þú? 16. Hann svaradi: eg leita ad brædrum mínum; seigdu mér, hvar eru þeir med hjördina. 17. Og madurinn sagdi: þeir eru farnir hédan, því eg heyrdi þá seigja: vér skulum fara til Dotan! Og Jósep fór eptir brædrum sínum og fann þá í Dotan; 18. Og þeir sáu hann álengdar, og ádur enn hann nálægdist, tóku þeir saman rád sín, ad deyda hann. 19. Og þeir sögdu hver vid annann: hana! þarna kémur draumamadurinn! 20. Gott og vel! vér skulum drepa hann, og kasta honum í gryfju, og svo seigjum vér: villudýr hefur étid hann, þá skulum vér sjá hvad úr draumum hans verdur. 21. Og Rúben heyrdi þad og frelsadi hann úr þeirra höndum og mælti: ekki skulum vér slá hann í hel! 22. og Rúben taladi þetta enn framar vid þá: úthellid ekki blódi, kastid honum í þessa gröf hér á eydimörkinni, leggid ekki hönd á hann — því hann ætladi sér ad frelsa hann úr þeirra höndum og færa hann aptur födur sínum. 23. Og þad skédi þá Jósep kom til brædra sinna, ad þeir færdu hann úr þeim mislita kirtli sem hann var í, 24. tóku hann og köstudu í gryfjuna; en gryfjan var tóm, ekkért vatn í henni. 25. Og þeir settust nidur ad eta. En sem þeim vard litid vid, sáu þeir Ísmaelita lest, er kom frá Gilead og úlfaldar þeirra báru reykélsi, balsam og mirru; þeir ætludu med þetta til Egyptalands. 26. Þá mælti Júda vid brædur sína: hvad stodar þad ad vér drepum bródur vorn, og felum hans blód? 27. Komid! vér skulum selja hann Ísmaelitum, en ekki leggja hönd á hann, því hann er vor bródir, vort hold. Og hans brædur hlýddu þessu. 28. Og þá Midianítarnir, sem voru kaupmenn, fóru þar fram hjá, drógu þeir brædur Jósep upp úr gryfjunni, og seldu hann Ísmaelitunum fyrir 20 sikla silfurs, en þeir fóru med Jósep til Egyptalands. 29. Og er Rúben kom aptur ad gryfjunni, sjá! þá var Jósep þar ekki, og hann reif sín klædi. 30. Og hann gékk aptur til sinna brædra, og mælti: sveinninn er þar ekki, og eg, hvad á eg af mér ad gjöra?

31. Þá tóku þeir Jóseps kirtil, skáru geithafur, og velktu kirtilinn í hans blódi, 32. og sendu þann mislita kirtil födur sínum, og létu þessa ordsendíng fylgja: þetta höfum vér fundid, gádu ad hvert þad muni vera kirtill sonar þíns eda ekki. 33. Og hann þekkti hann og

mælti: þetta er kirtill sonar míns! villudýr hefur etid hann, Jósep er sundur rifinn! 34. Og Jakob reif sín klædi, og lagdi sekk um sínar lendar og harmadi son sinn leingi. 35. Og allir synir hans, og allar dætur hans tóku sig til ad hugga hann; en hann vildi ekki huggast láta og sagdi: eg mun fara med harmi til sonar míns í grøfina (til helju) og svo grét fadir hans hann. 36. En Midíanitar seldu Jósep í Egyptalandi, Potifar, Kóngsins Dróttseta og herforíngja.

## 38. Kapítuli.

Um Júda og Tamar.

1. Og þad bar til um þetta leiti, ad Júda fór frá brædrum sínum, og lagdi lag sitt vid mann nokkurn í Adullam, sem hét Híra. 2. Þar sá Júda dóttur kanverskś manns, sem hét Súa, og tók hana og lagdist med henni. 3. Og hún vard ólétt, og fæddi son, og hann kalladi hann Ger, 4. og í annad sinn vard hún ólétt og fæddi son, og kalladi hans nafn Onan, 5. enn nú fæddi hún son og nefndi hann Sela; en Júda var í Kesib, þá hún fæddi hann. 6. Og Júda tók konu til handa sínum frumgétna syni Ger, hennar nafn var Tamar. 7. En Ger, Júda frumgétni son, var vondur í augsýn Drottins, og Drottinn deyddi hann. 8. Þá mælti Júda vid Onan: leggst þú med konu bródur þíns, og ekta þú hana í stad bródur þíns, og afla þú bródur þínum afkvæmis. 9. En Onan vissi, ad afkvæmid skyldi ei vera hans, og er hann lagdist med konu bródur síns, lét hann sædid spillast á jørdu, svo hann gjæfi ei bródur sínum afkvæmi. 10. Pad sem hann gjørdi mislíkadi Drottni, og hann deyddi hann líka. 11. Þá sagdi Júda vid Tamar, sína teingdadóttur: vert þú sem ekkja í húsi fødur þíns, þángad til sonur minn Sela er fulltída; því hann hugsadi: ské má ad hann deyi líka sem brædur hans. Svo fór Tamar, og var í húsi fødur síns.

12. Nú lída fram stundir, þángad til dóttir Súa, kona Júda deyr, og þegar Júda sorgardagar voru lidnir, fór hann til Timnat ad klippa saudi sína, hann og vinur hans Híra frá Adullam. 13. Þetta frétti Tamar, henni var sagt: sjá! teingdafadir þinn fer til Timnat ad klippa saudi sína. 14. Þá fór hún úr sínum ekkjubúníngi, vafdi um sig skikkju og huldi sig og settist vid port borgarinnar Enaim sem er á veiginum til Timnat; því hún sá ad Sela var ordin fulltída, og hún var þó ekki honum géfin fyrir konu. 15. Og Júda sá hana og hélt ad hún væri skækja, því hún hafdi hulid sitt andlit; 16. og hann vék til hennar á leidinni og mælti: leif mér ad leggjast med þér! því hann vissi ekki ad hún var hans teingdadóttir. Hún svaradi: hvad viltu géfa mér fyrir ad þú leggist med mér? 17. Og hann mælti: eg skal senda þér geithafur af hjørdinni. Hún svaradi: fádu mér þá pant þángad til þú sendir hann. 18. Hvada pant á eg ad fá þér? sagdi hann, og hún svaradi: þinn signets hríng, snítuklút, og stafinn sem þú hefur í hendinni. Og hann fékk henni þetta, og lagdist med henni, og hún fékk gétnad af honum. 19. Og hún stód upp, gékk burt og lagdi af sér skýluna, og fór aptur í sinn ekkjubúníng. 20. Og Júda sendi geithafurinn med vin sínum frá Adullam, svo ad hann feingi aptur pantinn af hendi konunnar; en hann fann hana ekki. 21. Og hann spurdi fólk í því plátsi, og sagdi: hvar er skækjan í Enaim vid veiginn? og þeir søgdu: þar hefur ekki skækja verid. 22. Hann kom þá aptur til Júda og mælti: ekki fann eg hana og menn í því plátsi søgdu: þar hefur eingin skækja verid. 23. Þá mælti Júda: haldi hún því sem hún hefur, ad vér verdum ekki fyrir vansa; sjá! eg sendi geithafurinn, eins

og eg lofadi, og þú fannst hana ekki. 24. En
ad lidnum þremur mánudum var Júda sagt:
Tamar teingdadóttir þín hefur hórast, og af
losœdi sínu er hún ordin þúngud. Þá mælti
Júda: farid burt med hana, svo ad hún verdi
brend! 25. En er hún var útleidd, gjørdi
hún teingdaføður sínum þessa ordsendíng: af
þeim manni, sem þetta á, hefi eg feingid gétn-
ad, kannastu vid, kjæri! hver muni eiga þennan
Signets hríng, klútinn og stafinn! 26. Júda
kannadist þá vid þetta og mælti: hún hefur
betri málstad enn eg, því eg hefi ekki gift hana
syni mínum Sela. Og hann kéndi hennar
ekki upp frá því. 27. En er hún skyldi fœda,
sjá! þá gékk hún med tvíbura. 28. Og þad
skédi, ad í fœdíngunni kom fram høndin á ødru
barninu, og ljósmódirin batt um hana raud-
um þrædi og sagdi: þessi fœddist fyrr, 29.
en svo fór ad barnid tók ad sér høndina, og í
því fœddist bródirinn, og hún mælti: því brúk-
ar þú ofbeldi? ofbeldid bitni á þér! og hann
var kalladur Peres (víkíngur). 30. Þar ept-
ir fœddist bródirinn, um hvers hønd raudi þrád-
urinn var; hann nefndu menn Sara (upphaf).

## 39. Kapituli.

1.) Jósep þjónar dyggilega. 2.) lætur sig ei lokka til syndar, 3.) er settur í myrkvastofu.

1.) 1. En Jósep var fluttur til Egyptalands,
og Potifar Kóngsins Dróttseti og herforíngi,
madur Egyptskur keypti hann af Ismaelitum,
sem fluttu hann þángad. 2. En Drottinn var
med Jósep, og hann var lángéfinn, og var í
húsi síns herra, þess Egyptska manns. 3. Og
þá hans herra sá, ad Drottinn var med hon-
um, og lét allt sem hann gjørdi, fara honum
vel úr hendi, 4. svo fann Jósep náð í hans
augum, og vard hans þénari; og hans húss-
bóndi setti hann yfir sitt hús, og fékk honum í
hønd allt hvad hann átti. 5. Og þad skédi
svo upp frá þeim tíma, ad hann hafdi sett Jó-
sep yfir sitt hús, og yfir allt sem hann átti,
ad Drottinn blessadi hús hins Egyptska, sakir
Jóseps, og Drottins blessan var yfir øllu sem
hann átti utanstokks og innan. 6. Hann fékk
Jósep í hønd allt hvad hann átti, og skipti sér
af eingu nema þeim mat er hann át. En
Jósep var vel vaxinn og frídur sýnum.

2.) 7. Og þad skédi eptir þessa atburdi,
ad kona hússbóndans leit ástaraugum til Jó-
seps og mælti: leggstu med mér! 8. en hann
færdist undan og sagdi vid konu síns herra:
sjá! herra minn lítur eptir eingu í húsinu med
mér, og allt hvad hans er, þad er mér feingid
í hønd. 9. Eínginn er fremri mér í þessu
húsi og hann fyrirmunar mér ekkért nema þig,
ad svo miklu leiti sem þú ert hans kona; hvern-
ig skyldi eg þá adhafast svo mikla óhæfu og
syndga á móti Gudi? 10. Og þó hún taladi
þessum ordum vid Jósep dag eptir dag, gégndi
hann henni ekki til þess ad leggjast med henni,
og vera hjá henni. 11. Um þetta leiti bar svo
til, ad Jósep gékk inní húsid til starfa sínna, og
eingin heimilis madur var inni. 12. Þá
greip hún í fat hans og mælti: leggstu nú med
mér! en hann lét fatid verda eptir í hennar
hendi, flúdi og hljóp út. 13. En sem hún
sá ad fatid var eptir ordid í hennar hendi, og
ad hann hljóp út, 14. kalladi hún heimamenn-
ina inn í húsid og mælti: sjáid! hann (mad-
urinn minn) hefir tekid þennan hebreska mann
til vor til ad gjøra oss vansa. Hann kom
inn til mín, og vildi hafa lagst med mér; þá
kalladi eg hárri rødd; 15. en sem hann heyrdi
ad eg hrópadi og kalladi hátt, slepti hann fat-
inu vid mig og flúdi og hljóp út. 16. Og
hún lagdi fat hans hjá sér, þángad til madur
hennar kom heim í sitt hús. 17. Og hún tal-

V. 6. Utlendir máttu ei matast med Egyptskum, sjá: 43, 32. og ekki snerta þeirra mat.

adi vid hann øll sømu ord og mælti: sá hebreski þræll sem þú hefur til vor haft, mér til skammar, hann kom til mín; 18. og það skédi, þá eg kalladi og hrópadi, að hann skildi eptir fat sitt hjá mér og hljóp í burt.

3.) 19. En sem húsbóndi hans heyrdi orð konu sinnar sem hún taladi vid hann, segjandi: þannig hefur þræll þinn hagað sér vid mig; þá vard hann ákaflega reidur, 20. og Jóseps herra tók hann og setti hann í myrkvastofu, hvar Kóngsins fángar voru vardveittir, og hann sat þar í fángelsi. 21. En Drottinn var med Jósep og útvegadi honum vægd og lét hann finna náð hjá forstjóra myrkvastofunnar, 22. Og forstjóri myrkvastofunnar fékk Jósep í hønd alla fángana sem voru í myrkvastofunni; og allt sem þar skyldi gjørast, það lét hann Jósep annast. 23. Forstjóri myrkvastofunnar leit ekki eptir neinu, sem var undir hans hendi; því Drottinn var med honum; og hvað sem hann gjørdi, það lét Drottinn heppnast.

## 40. Kapítuli.

Draumar útlagdir af Jósep.

1. Sá atburdur vard þar eptir, að skeinkjari Kóngsins í Egyptalandi og bakarinn brutu á móti herra sínum, Egyptalands Kóngi. 2. Og Faraó reiddist bádum sínum hirdmønnum, þeim ædsta skeinkjara og þeim ædsta bakara, 3. og lét setja þá í vardhald í húsi herforíngjans, í myrkvastofu þá, hvar Jósep var vardveittur; 4. og herforínginn lét Jósep þjóna þeim, og þeir voru nokkurntíma í vardhaldi.

5. Nú dreymdi þá báda draum, sinn drauminn hvern sømu nóttina, skeinkjara og bakara Kóngsins í Egyptalandi, sem voru fángar í myrkvastofunni. 6. Og þá Jósep kom inn til þeirra um morguninn, og leit til þeirra, sá hann að þeir voru ógladir. 7. Og hann spurdi Faraós hirdmenn, sem voru med honum vardveittir í húsi hans herra, og mælti: hvers vegna erud þér svo dauflegir á svipinn í dag? 8. Þeir svørudu: okkur hefur dreymt draum, og hér er einginn sem géti rádid hann. Þá sagdi Jósep vid þá: Er það ekki Guðs að ráda (drauma); seigid mér þá samt! 9. Þá sagdi hinn ædsti skeinkjari Jósep draum sinn og mælti: mig dreymdi að vínvidur væri gégnt mér; 10. á honum voru þrjár greinir, og vínvidurinn var svo sem blómstrandi, og vínberin ordin frjóf; 11. en Faraós bikar var í minni hendi, og eg tók vínberin og spreingdi þau í bikar Faraós, og rétti svo bikarinn að Faraó. 12. Þá sagdi Jósep til hans: þessi er draumsins þýðíng: þær þrjár vínvidar greinir eru þrír dagar, 13. og að þremur døgum lidnum mun Faraó hefja þitt høfud og setja þig aptur inní þitt embætti, svo þú munt rétta bikarinn í Faraós hønd, eins og ádur medan þú varst hans skeinkjari. 14. En mundu til mín þegar þér geingur í vil, og audsýndu mér þá gódsemi, að minnast á mig vid Faraó, og hjálpa þú mér úr þessu húsi; 15. því stolid var mér úr hebreskra landi, og sídan eg var híngað fluttur, hefi eg ekkért það adhafst er inni til, að þeir settu mig í þessa myrkvastofu. 16. En sem hinn ædsti bakari sá að hann rédi vel, sagdi hann til Jóseps: mig dreymdi að eg bæri á høfdinu þrjár kørfur med hveiti braudi. 17. Og i efstu kørfunni voru allslags krásir Faraós, køkur nl. og fuglarnir átu þær úr kørfunni á mínu høfdi. 18. Þá svaradi Jósep og mælti: þessi er draumsins þýðíng: þrjár karfir eru þrír dagar; 19. eptir þrjá daga hér frá mun Faraó hefja þitt høfud frá þér, og heingja þig í gálga og fuglar munu eta af þér þitt hold.

20. Og það skédi á þridja deigi á Faraós burdardeigi að hann gjørdi heimbod øllum sín-

um þénurum, og hann hóf upp høfud þess
ædsta skeinkjara og høfud þess ædsta bakara med-
al sinna þénara. 21. Og setti hann ædsta
skeinkjara aptur til síns embættis, ad hann rétti
bikarinn aptur Faraó í hønd. 22. En hinn
ædsta bakara lét hann heingja, eins og Jósep
hafdi rádid drauminn. 23. Og sá ædsti skein-
kjari hugsadi ekki til Jóseps, og gleymdi honum.

## 41. Kapituli.

1.) Faraó dreymir. 2.) Jósep rædur drauminn, og
3.) kémst þarfyrir til upphefdar.

1.) 1. En þad skédi, ad tveim árum lidn-
um, ad Faraó dreymdi draum, hann þóttist
standa vid ána; 2. og sjá! ad upp úr ánni
komu sjø kýr fallegar útlits og feitar á hold,
og bitu eingid. 3. Og sjá! sjø adrar kýr komu,
eptir hinar, uppúr ánni; ljótar útlits og magr-
ar á hold, og stadnæmdust hjá hinum kúnum
á árbakkanum; 4. og þær kýrnar sem ljótar
voru útlits og magrar á hold, átu upp hinar
sjø kýrnar sem voru fallegar útlits og feitar
á hold. Þá vaknadi Faraó. 5. Og hann
sofnadi aptur og dreymdi í annad sinn, og sjá!
sjø axin spruttu á (hálm) staung þrístileg og
væn; 6. og sjá! ønnur sjø grønn og af aust-
anvindi kalin spruttu upp eptir hin. 7. Og
þessi grønnu axin uppsvelgdu hin sjø þrístilegu
og vænu axin. Þá vaknadi Faraó, og sjá!
þad var draumur. 8. Og um morguninn var
hans andi órólegur, og hann sendi og kalladi
til sín alla Egyptalands spáfararmenn, og alla
sína vitrínga, og Faraó sagdi þeim sinn draum;
en einginn gat rádid hann fyrir Faraó.

2.) 9. Þá taladi sá ædsti skeinkjari vid
Faraó og mælti: nú minnist eg minnar synd-
ar, 10. þá Faraó reiddist sínum þrælum, og
setti mig í vardhald í húsi herforíngjans, mig,
og þann ædsta bakara. 11. Þá dreymdi okk-
ur á sømu nótt draum, mig og hann; sinn
drauminn hvern okkar, eptir þýdíngu draums-
ins. 12. Þar var med okkur hebreskur úngur
madur, þjón herforíngjans, honum søgdum vid
frá, og hann réd fyrir okkur draumana, hvern
drauminn rédi hann eins og hann þýddi; 13.
og útþýdíngin gékst eptir, því eg var aptur
settur til míns embættis, en bakarinn var
heingdur.

14. Þá sendi Faraó og kalladi Jósep,
og þeir sóktu hann sem fljótast úr fángelsinu;
hann skar sitt hár og fór í ønnur klædi, og
gékk inn fyrir Faraó. 15. Þá sagdi Faraó
vid Jósep: mig hefur dreymt draum, og eing-
inn getur rádid hann, en eg hefi af þér frétt,
ad þú rádir hvern draum sem þú heyrir. 16.
Þá svaradi Jósep Faraó og mælti: þad er
ekki í mínu valdi; en Gud láti drauminn boda
Faraó lukku! 17. Og Faraó sagdi til Jóseps:
sjá! í mínum draumi stód eg á árbakkanum,
18. og sjá! upp úr ánni komu sjø kýr feitar á
hold og fallegar útlits og bitu eingid. 19.
Og sjá! sjø adrar kýr komu á eptir þessar,
ljótar útlits og magrar á hold; eg hefi í øllu
Egyptalandi eingar sjed jafnljótar. 20. Og
þær møgru og ljótu kýrnar átu þær sjø fyrri
feitu kýrnar, 21. en þó þær færu í þeirra
belg, var þad ekki á þeim ad sjá ad þær hefdu
þángad komid, því þær voru ljótar sem ádur.
Þá vaknadi eg. 22. Og eg sá í mínum
draumi, og sjá! sjø axin spruttu á einni staung,
føgur og þrístileg. 23. Og sjø axin þurr,
þunn og kalin af vindi spruttu upp eptir hin.
24. Og þau þurru axin svelgdu í sig þau sjø
føgru axin; og eg hefi sagt spáfararmønnunum
frá, og einginn þeirra hefir getad rádid mér
drauminn.

25. Þá mælti Jósep vid Faraó: draumur
Faraós er einn; þad sem Gud vill gjøra, hef-

V. 11. ólíka drauma eptir því hvernig þeir voru rádnir eda rédust. V. 25. bádir draumarnir þýda sama.

ir hann auglýst Faraó. 26. Þær sjø føgru kýr eru sjø ár, og þau sjø føgru axin eru sjø ár; einn draumur er þetta. 27. Og þær sjø møgru og ljótu kýr, sem eptir hinar komu, eru sjø ár, og þau sjø þunnu og af austanvindi svidnu axin, munu verda sjø hallæris ár. 28. Þad er þad sem eg sagdi Faraó: þad sem Gud vill gjøra hefur hann látid Faraó sjá, 29. sjá! sjø ár munu koma, og mikil gnægd í øllu Egyptalandi. 30. Og eptir þau munu koma sjø húngurs ár; og gleymast mun øll gnægdin í Egyptalandi, og húngrid eyda landid. 31. Og menn munu ekki vita af nægtum í landinu, vegna skortsins sem á eptir kémur; því hann er mikill. 32. En þad, ad Faraó dreymdi tvísvar hid sama, merkir, ad þetta er fastrádid af Gudi, og Gud hradar sér ad framkvæma þad. 33. Því sjái Faraó sig nú um eptir frammsýnum og vitrum manni, og setji hann yfir Egyptaland. 34. Faraó gjøri þad, hann setji umsjónarmann yfir landid og taki fimtúng af landsins afrakstri á þeim sjø nægta árum. 35. Og þeir skulu safna matvælum á þeim sjø gódu árum sem fara í hønd, og draga ad korn undir Faraós geymslu, vistir í stadina, og geyma, 36. svo til séu vistir til forda fyrir landid á þeim sjø hallæris árum, sem koma munu yfir Egyptaland, ad landid verdi ekki eydilagt af húngri. 37. Þetta tal líkadi Faraó, og hans þénurum.

3.) 38. Og Faraó sagdi vid sína þénara: munum vér finna mann sem þennann í hverjum Guds andi er. 39. Og Faraó sagdi til Jóseps: þared Gud hefur kunngjørt þér allt þetta, svo er einginn eins hygginn og vitur sem þú. 40. Þig set eg yfir allt mitt hús og þínum ordum skal øll mín þjód hlýda, og ad hásætinu einu skal eg vera efri enn þú. 41. Og Faraó sagdi til Jóseps: sjá! eg set þig yfir allt Egyptaland. 42. Og Faraó tók sinn hríng af sinni hendi, og setti hann á Jóseps hønd, og klæddi hann í silkiklædi og lét gullkédju um hans háls; 43. og lét aka honum í sínum ødrum vagni og menn hrópudu fyrir honum: lútid honum! því hann er settur yfir allt Egyptaland. 44. Og Faraó sagdi vid Jósep: Eg er Faraó, og án þíns vilja skal einginn hræra hønd eda fót í øllu Egyptalandi. 45. Og Faraó kalladi Jósep heimsins bjargvætt, og gaf honum Asnat, fyrir konu, dóttur Pótifars, prests í On. Og Jósep ferdadist um Egyptaland. 46. En Jósep var 30 ára gamall þegar hann stód frammi fyrir Faraó, Egyptalands Kóngi. Og Jósep gékk út frá Faraó og ferdadist um allt Egyptaland. 47. Og landid gaf af sér ríkuglega uppskéru þau sjo nægta árin. 48. Þá safnadi hann øllum matvælum þeirra sjø gódu ára, sem voru í Egyptalandi og flutti í stadina; matvæli akranna, sem voru í kríngum hvern stad, flutti hann í stadinn. 49. Og Jósep hrúgadi saman korni sem sandi sjáfarins, ákaflega miklu, þar til menn hættu ad telja; því tølu vard ei ákomid. 50. En Jósepi fæddust tveir synir, ádur enn hallæris árin komu, þá syni fæddi honum Asnat, dóttir Pótifars prests í On. 51. Og Jósep nefndi þann frumgétna Manasse, „því Gud hefur látid mig gleyma øllu mínu mótlæti og øllu húsi fødur míns.“ 52. Og þann annan son kalladi hann Efraim; „því Gud hefir gjørt mig frjóssamann í landi eymdar minnar.“

53. Og þau sjø nægta ár endudu sem voru í Egyptalandi. 54. Og þau sjø hallæris ár birjudu, eins og Jósep hafdi sagt, og sultur var í øllum løndum, en í øllu Egyptalandi var braud. 55. Og þá Egyptaland húngradi og fólkid bad Faraó um braud, svo sagdi Faraó til allra Egyptskra: farid til Jóseps, gjør-

V. 45. Ádrir leyndarrád fyrir bjargvætt.

id þad sem hann seigir ydur! 56. Og húngrid gékk yfir allan heiminn, og Jósep opnadi allar hlødur, sem korn var í, og seldi Egyptskum korn, og húngrid var mikid í Egyptalandi. 57. Og úr øllum løndum komu menn til Egyptalands ad kaupa korn hjá Jósep, því húngrid var mikid í øllum løndum.

## 42. Kapítuli.

Jóseps 10 brædur koma til Egyptalands ad kaupa korn.

1. Og Jakob sá ad korn var (falt) í Egyptalandi; því sagdi hann vid syni sína: hvad horfid þér hver uppá annann? 2. og hann mælti: sjá! eg hefi heyrt ad korn sé í Egyptalandi, farid því og kaupid oss þadan, ad vér lifum og deyum ekki. 3. Þá løgdu þeir 10 brædur af stad, til ad kaupa korn í Egyptalandi. 4. En Benjamín bródir Jóseps, sendi Jakob ekki med brædrunum, því hann hugsadi honum kynni ad vilja eitthvert slis til. 5. Svo komu Israels synir ad kaupa korn medal annara sem komu; því húngur var í Kanaanslandi.

6. En Jósep var stjórnari yfir landinu; hann var sá sem seldi øllu landsfólkinu korn. Og Jóseps brædur komu og beigdu sín andlit til jardar fyrir honum. 7. Og strax sem Jósep sá sína brædur, þekkti hann þá; en létst ekki þekkja þá, og taladi þeim hardlega til og mælti: hvadan komid þér? þeir søgdu: úr Kanaanslandi, til ad kaupa mat. 8. Og Jósep þekkti brædur sína, en þeir þekktu hann ekki. 9. Jósep hugsadi þá líka til drauma þeirra, sem hann hafdi dreymt um þá, og sagdi til þeirra: þér erud njósnarmenn komnir til ad sjá, hvar landid er varnarlaust. 10. En þeir svørudu honum: nei! herra minn! vér þjónar þínir erum komnir til ad kaupa mat. 11. Vér allir erum synir sama manns, vér erum hrekkjalausir menn, vér þjónar þínir erum ekki njósnarar. 12. Og hann sagdi til þeirra: nei! til ad sjá varnarleysi landsins erud þér komnir. 13. Þeir svørudu: vér þjónar þínir vorum 12 brædur, synir sama manns í Kanaanslandi; sá yngsti er nú hjá fødur vorum, og einn er ekki á lífi. 14. Og Jósep sagdi til þeirra: þetta er einmidt þad sem eg sagdi: þér erud njósnarmenn. 15. Þér skulud verda prófadir. Svo sannarlega sem Faraó lifir! þér skulud ekki hédan fara nema ydar yngsti bródir komi híngad. 16. Sendid því einn af ydur til ad sækja bródur ydar; en þér hinir skulud vera í vardhaldi, ad ydar ord verdi prófud, hvert þér talid satt eda ekki? Svo sannarlega sem Faraó lifir! þá erud þér njósnarmenn! 17. Svo lét hann vardveita þá í þrjá daga.

18. Á þridja deigi sagdi Jósep til þeirra: gjørid þetta svo ad þér lifid; eg óttast Gud! 19. Ef þér erud hrekkjalausir þá verdi einn af ykkar brædrum eptir hér í vardhaldi, en farid þér hinir og flytjid korn til naudþurftar ydar heimila, 20. og komid svo til mín aptur med ydar yngsta bródur, svo munu ord ydar sannast og þér halda lífi. Og þeir gjørdu svo. 21. Þá søgdu þeir hver vid annann: þetta eigum vér sannarlega skilid fyrir bródur vorn; vér sáum hans sálar ángist þegar hann bad oss vægdar, en vér heyrdum hann ekki; þessvegna erum vér komnir í þessar krøggur! 22. Ruben ansadi þá til og mælti: sagdi eg ekki vid ydur: syndgist ekki á sveininum! en þér gegndud því ekki! 23. En þeir vissu ekki ad Jósep skildi þetta; því þeir brúkudu túlk, 24. og hann snéri sér undan og grét, sídan snéri hann sér ad þeim aptur og taladi vid þá, og tók Simeon og batt hann fyrir þeirra augum. 25. Sídan skipadi Jósep ad fylla þeirra sekki med korn, og láta silfur hvers eins þeirra í hans sekk, og svo nesti til ferdarinnar. Og þetta var gjørt. 26. Svo létu þeir kornid uppá sína asna og fóru af stad.

27. En sem einn af þeim opnadi sinn sekk

til ad géfa asna sínum fódur á gistíngarstadnum, sá hann sitt silfur, og sjá! þad lá efst í hans sekk. 28. Og hann sagdi brædrum sínum frá: mitt silfur er komid aptur, sjá! þad liggur í mínum sekk. Þá hvarf þeim hugur og skjálfandi af hrædslu sögdu þeir hver vid annann: því hefur Gud gjört oss þetta? 29. Og þeir komu til Jakobs, födur síns, í Kanaansland, og sögdu honum frá öllu sem fram vid þá hafdi komid med þessum ordum: 30. Madurinn sem er herra í landinu taladi oss hardlega til, og sagdi vér værum njósnarmenn í landinu. 31. Og vér sögdum til hans: vér erum hrekkjalausir menn, vér erum ekki njósnarmenn; 32. tólf brædur erum vér, synir vors födurs; sá eini er ekki framar til, og sá ýngsti er nú hjá födur vorum í Kanaanslandi. 33. Þá sagdi madurinn, landsins herra, vid oss: þar af skal eg vita hvert þér erud hrekkjalausir: látid einn af ydur verda eptir hjá mér, og takid naudsynjar ydar heimila, og farid svo, 34. og komid med ydar ýngsta bródur til mín, svo eg sjái, ad þér erud ekki njósnarar, ad þér erud hrekkjalausir menn; svo skulud þér fá bródur ydar aptur, og þér skulud eiga kaupskap í landinu. 35. En þad skédi, þá þeir helltu úr sínum sekkjum, sjá! þá var hvers eins penínga pýngja í hans sekk, og er þeir sáu sínar pýngjur, skélkudust þeir, og þeirra fadir. 36. Og Jakob fadir þeirra sagdi til þeirra: þér gjörid mig barnlausann. Jósep er farinn, Simeon er farinn, og Benjamín viljid þér taka; allt þetta kémur yfir mig. 37. Og Rúben sagdi vid födur sinn: þú mátt deyda báda syni mína, ef eg færi þér hann ekki aptur, fá þú mér hann í hönd, eg skal aptur koma med hann til þín. 38. Og Jakob sagdi: ekki skal sonur minn fara med ydur, því bródir hans er daudur, og þessi er einn eptir, og verdi hann fyrir slisum á þeim veigi sem þér farid, þá leidid þér mínar hærur med harmi nidur í helju.

## 43. Kapituli.

*Jakobs synir fara og Benjamín med til Egyptalands.*

1. En mikill sultur var í landinu. 2. Og þad skédi, þá kornid var uppgeingid, sem þeir höfdu sókt til Egyptalands, ad fadir þeirra sagdi til þeirra: kaupid oss nú aptur eitthvad af matvælum. 3. Þá ansadi Júda födur sínum og mælti: madurinn lagdi ríkt á vid oss og sagdi: þér skulud ekki sjá mitt auglit, nema bródir ydar sé med ydur. 4. Ef ad þú sendir bródur vorn med oss, þá skulum vér fara og kaupa þér vistir; 5. en ef þú villt ekki senda hann med, svo förum vér hvergi; því madurinn hefur sagt vid oss: þér skulud ekki sjá mitt auglit nema bródir ydar sé med ydur. 6. Og Israel mælti: því hafid þér verid mér svo slæmir ad segja manninum, ad þér ættud enn nú einn bródur? 7. Og þeir sögdu: madurinn spurdi ítarlega um oss og vora ætt, og mælti: lifir fadir ydar enn? eigid þér enn nú bródur? Og vér sögdum honum eins og var; gátum vér þá vitad ad hann mundi seigja: komid híngad med bródur ydar! 8. Og Júda sagdi vid Israel födur sinn: láttu sveininn fara med mér, svo gétum tekid oss upp og farid og lifad og ekki dáid, vér, og þú og vor börn. 9. Eg skal ábyrgjast hann, af minni hendi skalt þú hans krefja, komi eg ekki med hann aptur til þín, og leidi eg hann ekki fram fyrir þína augsýn, skal eg vera sekur vid þig alla mína æfi; 10. því hefdum vér ekki tafist, svo værum vér nú komnir aptur í annad sinn. 11. Þá sagdi Israel fadir þeirra vid þá: ef þad er svo, þá gjörid þad; takid af landsins gjæd-

V. 11. Kjarni úr þeim nitum sem spruttu á vissum trjám í Syríu og þar um kríng, var brúkadur sem læknis medal mót höggorma biti.

um, í ydar ílát, og færid manninum ad gjøf, nokkud af balsami og hunángi, jurtum, mirru, nitum og mandel, 12. takid og med ydur annad silfur, og þad silfur sem var ofaná í ydar sekkjum, takid þad aptur í ydar hønd, máské þad sé ordid af ógjætni. 13. Takid líka bródur ydar, takid ydur upp og farid aptur til mannsins! 14. Og Gud almáttugur géfi ydur nú miskun hjá manninum, svo hann sleppi vid ydur hinum bródur ydar og Benjamín, eg em nú sem sá er mist hefur børn sín. 15. Og mennirnir tóku þessar gáfur og tvøfaldt silfur, þeir tóku líka Benjamín; tóku sig upp og fóru til Egyptalands og komu fyrir Jósep.

16. Og sem Jósep sá Benjamín med þeim, sagdi hann vid sinn rádsmann: far þú med þessa menn inn í húsid, og slátra þú og matreid, því þessir menn eta med mér dagverd í dag, 17. og madurinn gjørdi sem Jósep baud og fór med mennina inn í Jóseps hús. 18. Og mennirnir urdu hræddir, ad þeim var fylgt í Jóseps hús og søgdu: vér erum vegna silfursins sem hvarf aptur í vora sekki híngad leiddir, svo hann géti ad oss rádist og oss yfirfallid, og gjørt oss ad sínum þrælum og vora asna. 19. Þá geingu þeir til Jóseps rádsmanns, og tøludu vid hann úti fyrir dyrum húsins, 20. og søgdu: æ, herra minn! vér komum híngad ádur ad kaupa vistir. 21. Og þad skédi, þá vér vorum hédan komnir í áfángastad, og opnudum vora sekki, þá var hvers eins silfur efst í hans sekk, vort silfur med sinni vigt; og vid erum nú komnir med þad aptur. 22. Og annad silfur høfum vér komid med, til ad kaupa fyrir mat. Vér vitum ekki hver silfrid lét í vora sekki. 23. Hann svaradi: verid rólegir, óttist ekki! ydar Gud og ydvarra fedra Gud hefur sendt fjársjódu í ydar sekki. Ydar silfur kom í mína hønd. Sídan leiddi hann Simeon út til þeirra. 24. Og madurinn leiddi þá í Jóseps hús, og gaf vatn, ad þeir þvodu sínar fætur, og fódur gaf hann þeirra øsnum. 25. Og nú tóku þeir til gáfurnar, þángad til Jósep kjæmi um middeigid; því þeir høfdu heyrt, ad þeir ættu ad matast þar. 26. En sem Jósep kom inn, færdu þeir honum gáfurnar, sem þeir høfdu medferdis, inní húsid, og beigdu sig til jardar fyrir honum. 27. En hann spurdi hvernig þeim lidi, og mælti: lídur ydar gamla fødur vel, sem þér gátud um vid mig? lifir hann enn? 28. Þeir svørudu: þínum þjón (þræl) fødur vorum lídur vel, hann lifir enn og þeir hneigdu sig og féllu fram. 29. Og Jósep litadist um og kom auga á bródur sinn Benjamín, son sinnar módur og mælti: er þetta ydar ýngsti bródir, sem þér minntust á vid mig? Og hann sagdi: Gud miskuni þér, minn son! 30. Og Jósep hradadi sér burt, því hans hjarta brann af ást til bródur hans og gat ekki tára bundist og fór inní innra herbergid og grét þar. 31. Sídan þvodi hann sitt andlit, og gékk út, og lét ekki á sér bera, og mælti: berid á bord! 32. Og menn løgdu sérílagi á bord fyrir hann, og sérílagi fyrir þá, og sérílagi fyrir þá Egyptsku sem átu med honum, því ekki meiga Egyptskir matast med Hebreskum, þad er þeim vidurstygd. 33. Þeim var niðurskipad gagnvart honum, þeim frumgétna efst og þeim ýngsta nedst. Og mennina furdadi þetta. 34. Og hann lét bera rétti frá sér til þeirra; en Benjamin var skamtad fimsinnum meir enn hinum. Og þeir drukku, og urdu drukknir med honum.

V: 14. adr: verdi eg barnlaus, er eg þad.

## 44. Kapítuli.

*Jósep vill halda eptir Benjamín. Brædurnir, einkum Júda, komast í vandrædi.*

1. Þar eptir baud Jósep sínum rádsmanni

og mælti: láttu í sekki þessara manna mat, svo mikid sem þeir géta flutt, og hvers eins silfur efst í hans sekk. 2. Og minn bikar, þann stóra silfur bikar, skalt þú láta í sekk hins ýngsta, og silfrid fyrir hans korn, og hann gjørdi eins og Jósep sagdi honum. 3. Med deigi voru mennirnir látnir fara, þeir og þeirra asnar. 4. Þeir voru komnir út úr borginni, og ekki lángt, þegar Jósep sagdi vid sinn ráðsmann: tak þú þig til og far þú eptir þessum mønnum, og þegar þú nær þeim, þá skaltu seigja vid þá: því hafid þér launad gott med íllu? 5. Er þad ekki þad sem minn herra drekkur af? hann veit vel (hvar þad er) þér hafid gjørt þetta ílla! 6. Og hann nádi þeim, og taladi til þeirra þessi sømu ord. 7. Og þeir søgdu: því talar minn herra þessi ord? fjærri sé þad þínum þjónum ad adhafast slíkt. 8. Sjá! þad silfur, sem vér fundum ofaná í vorum sekkjum, þad færdum vér þér aptur úr Kanaans landi; og vér skyldum stela úr húsi herra þíns gulli og silfri? 9. hver af þinum þjónum sem þad (bikarinn) finnst hjá, hann skal deya, og vér líka skulum vera þrælar vors herra. 10. Og hann svaradi: jæa! veri þad svo, eins og þér seigid: hjá hverjum sem þad finnst, veri sá minn þræll; en þér séud fríir. 11. Þá flóttu þeir sér, og hver tók ofan sinn sekk og lagdi á jørd, og hver einn opnadi sinn sekk. 12. Og hann (ráðsmadurinn) leitadi, byrjadi á þeim eldsta og endadi á þeim ýngsta, og bikarinn var í Benjamíns sekk. 13. Þá rifu þeir sín klædi, létu uppá sína asna og fóru aptur til stadarins.

14. Og Júda og hans brædur geingu í Jóseps hús, en hann var þar enn þá, og þeir féllu fram fyrir honum til jardar. 15. Þá sagdi Jósep til þeirra: hvada ógjørníngur er þetta sem þér hafid framid? vitid þér ekki ad annar eins madur og eg gat látid þetta komast upp? 16. Og Júda mælti: hvad skulum vér tala vid vorn herra? hvad seigja? og hvernig réttlæta oss? Gud hefur fundid misgjørníng þinna þræla; sjá! vér erum þrælar míns herra, bædi vér og sá sem bikarinn fannst hjá. 17. Og hann svaradi: fjærri sé mér ad gjøra slíkt! sá madur, sem bikarinn fannst hjá, hann sé minn þræll; en farid þér í fridi til ydar fødurs. 18. Þá gékk Júda ad honum og mælti: æ, minn herra! leif þínum þræli eitt ord ad tala fyrir eyrum míns herra, og þín reidi upptendrist ekki gégn þínum þræl; því þú ert sem Faraó. 19. Minn herra spurdi sína þræla og mælti: eigid þér fødur eda brædur. 20. Og vér søgdum til vors herra: vér eigum gamlan fødur, og hann úngan svein, sem honum fæddist í hans elli, og bródir hans er dáinn, og hann er einn ordinn eptir sína módur, og fadir hans elskar hann. 21. Og þú sagdir vid þína þræla: komid med hann híngad til mín, ad eg sjái hann med mínum augum. 22. Og vér søgdum til míns herra: sveinninn má ekki fara frá fødur sínum, fari hann frá honum, kostar þad fødursins líf. 23. Og þú sagdir vid þína þræla: ef ydar ýngsti bródir kémur ekki híngad med ydur, svo skulud þér ekki framar fá ad sjá mig. 24. Og þad skédi, þá vér fórum hédan til þíns þjóns fødur míns, þá søgdum vér honum ummæli herra míns. 25. Og fadir vor sagdi: kaupid oss aptur eitthvad af vistum! 26. og vér søgdum: vér gétum ekki farid; en sé vor ýngsti bródir med oss, svo skulum vér fara; því ekki gétum vér feingid manninn ad sjá, nema vor ýngsti bródir sé med oss. 27. Og þinn þjón, fadir minn, sagdi vid oss: þér vitid ad kona mín ól mér tvo syni; 28. ann-

V. 5. Meiningin er: þid hafid tekid bikar sjálfs Jóseps og þad illa gjørt af ydur. hann ser nærri um hvar hann er nidur kominn og er

ar þeirra fór að heiman frá mér, og mér segir svo hugur um, að hann sé vissulega rifinn (í hel) og eg hefi ekki sjeð hann síðan. 29. Og ef þér takið nú líka þennann burt frá mér, og verði hann fyrir slisum, svo leiðið þér mínar hærur með harmi niður í grøfina. 30. Og þegar eg nú kém til þjóns þíns, føður míns, og sé sveinninn ekki með oss, fyrst hann elskar sveininn sem sitt egið líf, 31. þá fer það svo, sjái hann ekki sveininn, að hann deyr, og þínir þrælar munu svo leiða hærur þíns þjóns, føður vors, með harmi niður í grøfina; 32. því eg þinn þræll tók sveininn til ábyrgðar af føður mínum, og sagði: ef eg kém ekki með hann aptur, skal eg vera sekur við føður minn alla mína æfi. 33. Veri eg því þinn þræll hér í stað sveinsins, sem þræll míns herra, og sveinninn fari með bræðrum sínum. 34. Því hvernig gét eg farið heim til føður míns, sé sveinninn ekki með mér? Eg yrði þá að sjá þá hørmúng sem koma mun yfir føður minn.

## 45. Kapítuli.

1.) Jósep gétur ei leingur dulist bræðrum sínum. 2.) Sendir eptir føður sínum.

1.) 1. En Jósep gat þá ekki leingur haldið sér í augsýn allra sem viðstaddir voru, og kallaði: látið hvern mann gánga út frá mér! og eingin maður var inni hjá honum þegar hann lét bræður sína þekkja sig. 2. Og hann grét hástøfum svo að Egyptskir heyrðu og Faraós hús heyrði það. 3. Og Jósep mælti: eg em Jósep! lifir faðir minn enn? og bræður hans gátu ekki svarað honum, svo varð þeim bilt við. 4. Og Jósep sagði við bræður sína: komið híngað til mín! og þeir geingu til hans. Og hann mælti: eg em Jósep bróðir yðar, sem þér hafið selt til Egyptalands. 5. Látið það ekki hryggja yður, reiðist ei af því að þér hafið selt mig híngað, því til lífs viðurhalds hefur Guð sendt mig híngað á undan yður, 6. því í þessi 2 ár hefur húngur verið í landinu, og enn nú mun í 5 ár hverki verða plægt né uppskorið. 7. Og svo hefur Guð sendt mig híngað á undan yður, svo þér héldud lífi á jørðunni, og til að viðhalda yður til mikils frelsis. 8. Og nú hafið þér ekki sendt mig híngað heldur Guð; og hann hefur gjørt mig føður Faraós og að herra alls hans húss, og að drottnara yfir øllu Egyptalandi, 9. hraðið yður nú og farið heim til føður míns og segið til hans: svo segir Jósep sonur þinn: Guð hefur gjørt mig að herra alls Egyptalands, kom þú til mín, og kom sem fyrst! 10. Og þú skalt búa í landinu Gosen, og vera í nánd við mig, þú og þínir synir, og þínir sona synir, og þínir sauðir og þínar kýr og allt sem þitt er. 11. Eg skal sjá þér þar fyrir atvinnu, því enn verður hallæri í 5 ár, svo þú líðir ekki skort, hverki þú né þitt hús né nokkuð sem þér tilheyrir. 12. Og sjá! yðar augu og augu Benjamíns bróður míns sjá, að minn munnur við yður talar. 13. Og segið føður mínum frá allri minni dýrð í Egyptalandi, og frá øllu sem þér sjáið, og flýtið yður nú, og komið híngað með føður minn. 14. Og hann féll um háls Benjamín bróður sínum og grét, og Benjamín grét um hans háls. 15. Og hann minntist við alla bræður sína og grét yfir þeim, og þar eptir gátu bræður hans við hann talað.

2.) 16. Eptir þetta fréttist í Faraós hús, að bræður Jóseps væru þar komnir, og það gédjaðist Faraó og hans þénurum. 17. Og Faraó sagði við Jósep: seg þú bræðrum þínum að þeir gjøri þetta: klifji sín vinnudýr og fari til Kanaanslands. 18. Og seg þeim: takið føður yðar og hyski yðar og komið til mín, og eg skal géfa yður það besta af Egyptalandi, og þér skuluð eta landsins feiti. 19. Og þér er það boðið; gjør svo: takið yður vagna í

Egyptalandi, handa ydar børnum og konum og flytjid ydar fødur, og komid. 20. Og gésid ekkért um ydar búsgøgn, því þad besta af øllu Egyptalandi skal tilheyra ydur. 21. Og synir Ísraels gjørdu svo, og Jósep fékk þeim vagna eptir ordum Faraós, og nesti til ferdarinnar. 22. Hann gaf og sérhverjum þeirra spari føt, en Benjamín gaf hann hundrad sikla silfurs og fim spari klædnadi. 23. Og fødur sínum sendi hann þetta: tíu asna klifjada med Egyptalands gjædi og tíu øsnur sem báru korn og braud og vistir handa fødur hans til ferdarinnar; 24. og hann lét brædur sína fara, og þeir fóru; og hann sagdi vid þá: deilid ekki á leidinni.

25. Og þeir fóru af stad úr Egyptalandi og komu í Kanaansland til Jakobs fødur síns. 26. Og þeir færdu honum tídindin og søgdu: Jósep lifir enn, og er herra yfir øllu Egyptalandi; en hans hjarta komst ekki vid, því hann trúdi þeim ekki. 27. Þeir báru honum þá øll Jóseps ord, sem hann hafdi vid þá talad, og hann sá vagnana sem Jósep hafdi sendt til ad flytja hann á. 28. Og Ísrael sagdi: mikid er þetta! Jósep sonur minn lifir enn! Eg vil fara og sjá hann, ádurenn eg dey.

## 46. Kapítuli.

*Jakob fer til Egyptalands med allt sitt.*

1. Og Ísrael tók sig upp, og fór med allt sem hans var, og kom til Berseba, og offradi þar Gudi fødur síns Ísaaks slátrunarfórn. 2. Og Gud taladi vid Ísrael í sýn um nóttina og sagdi: Jakob! Jakob! og hann svaradi: hér em eg! 3. Og hann sagdi: eg em Gud, þinna fedra Gud. Óttast þú ekki ad fara nidur til Egyptalands, því þar mun eg gjøra þig ad mikilli þjód. 4. Eg skal fara med þér til Egyptalands, og eg mun flytja þig þadan aptur og Jósep skal veita þér þar nábjargirnar. 5. Þá tók Jakob sig upp frá Berseba, og Ísraels synir fluttu Jakob fødur sinn, og børn sín og konur sínar á þeim vøgnum sem Faraó sendi, til ad flytja hann á. 6. Og þeir tóku fénad sinn og fjárhluti sem þeim høfdu aflast í Kanaanslandi, og komu í Egyptaland, Jakob og allir hans nidjar med honum; 7. hans synir og sona synir med honum, hans dætur og hans sona dætur; og alla sína nidja, flutti hann med sér til Egyptalands.

8. Þessi eru nøfn Ísraels sona sem komu til Egyptalands, Jakob og hans synir. Rúben Jakobs frumgétni son. 9. Og synir Rúbens, Hanok og Pallu og Hesron og Karmi. 10. Og synir Simeons: Jemuel og Jamin og Óhad og Jakin og Soar og Sál, sonur þeirrar kanversku. 11. Og synir Levi: Gerson Kahat og Merari, 12. og synir Júda: Ger og Ónan og Sela og Peres og Sera (en Ger og Ónan dóu í Kanaans landi) og Peres synir voru: Hesron og Hamul. 13. Og synir Íssaskars: Tóla og Púva og Job og Simrom. 14. Og synir Sebulons: Sered og Elon og Jalel. 15. Þetta eru synir Leu, sem hún fæddi Jakob í Mesopotamíu, med Dínu dóttur hans, allir hennar synir og dætur voru 33 sálir. 16. Og synir Gads: Sifion og Haggi, Suni og Esbon, Eri og Arodi og Areli. 17. Og synir Assers: Imna og Ísva og Ísvi og Bría og Sera, þeirra systir; og synir Bría: Heber og Malkiel. 18. Þetta eru synir Silpu, sem Laban gaf Leu dóttur sinni, hún ól þessa Jakob — 16 sálir. 19. Synir Rakelar, konu Jakobs: Jósep og Benjamín. 20. Og Jósep fæddust synir í Egyptalandi; Asnat, dóttir prestsins í On ól honum þá: Manasse og Efraim. 21. Og synir Benjamíns: Bela og Beker og Asbel, Gera og Naaman, Ehi og Ros, Muppim og Huppim og Ard. 22. Þetta eru synir Rakelar sem fæddust Jakob, alls 14 sálir. 23. Dans synir Husim. 24. Naftalis

synir: Jaseel og Guni, Jeser og Sillem. 25. Þetta eru Bilu synir, sem Laban gaf Rakel dóttur sinni, og hún ól Jakob; þeir eru 7 sálir. 26. Og allar þær sálir sem komu med Jakob til Egyptalands er af honum voru komnar, fyrir utan Jakobs sona konur, eru 66 sálir. 27. Og synir Jóseps, sem honum voru fæddir í Egyptalandi voru tvær sálir. Allar sálir af Jakobs húsi, sem komu til Egyptalands voru 70 sálir. 28. Og hann sendi Júda á undan sér til Jóseps, ad hann vísadi sér til Gosen. 29. Þá lét Jósep spenna fyrir sinn vagn, og fór á móti födur sínum Israel, til Gosen, og sem hann kom fyrir hann, féll hann honum um háls, og grét leingi. 30. Og Israel sagdi vid Jósep: nú vil eg deya, fyrst eg er búinn ad sjá þig, og fyrst þú ert enn á lífi. 31. Og Jósep sagdi vid brædur sína, og vid síns födurs hús: nú vil eg fara og láta Faraó vita, og seigja vid hann: brædur mínir og míns födurs hús sem voru í Kanaanslandi, eru til mín komnir; 32. og mennirnir eru fjárhyrdarar, því þeir hafa lagt fyrir sig fjárrækt og saudi sína og nautpeníng sinn eru þeir komnir med, og allt hvad þeir eiga. 33. Þegar nú Faraó lætur ydur kalla og spyr: hver er ydar atvinna? 34. Þá svarid: fjárrækt hafa þínir þjónar stundad frá barnæsku til þessa dags, bædi vér og fedur vorir; til þess þér fáid ad búa í landinu Gosen.

## 47. Kapituli.

*Jakob kémur til Egyptalands, setst ad í Gosen.*

1. Og Jósep kom og sagdi Faraó frá og mælti: fadir minn og brædur mínir eru komnir og þeirra saudir og þeirra naut og allt hvad þeirra er úr Kanaanslandi, og sjá! þeir eru í landinu Gosen. 2. Og af brædrum sínum tók hann fim, og leiddi þá fyrir Faraó. 3. Þá mælti Faraó vid brædur hans: hver er ydar atvinna? Og þeir svörudu Faraó: fjárhyrdarar eru þjónar þínir, svo vér, sem vorir fedur. 4. Og þeir sögdu vid Faraó: vér erum komnir til ad stadnæmast í landinu; því þad er eingin hagi fyrir saudina sem þjónar þínir hafa; og hallærid er mikid í Kanaans landi; svo leif þá þjónum þínum ad búa í landinu Gosen. 5. Og Faraó sagdi vid Jósep: fadir þinn og brædur þínir eru komnir til þín. 6. Egyptaland er fyrir þinni augsýn, láttu födur þinn og brædur þína búa þar sem best er í landinu, þeir meiga búa í landinu Gosen, og ef þú þekkir nokkra duglega medal þeirra, þá láttu þá hafa umsjón yfir mínum hjördum.

7. Og Jósep leiddi Jakob födur sinn fyrir Faraó. Og Jakob kvaddi (heilsadi) Faraó. 8. Og Faraó spurdi Jakob: hversu margir eru dagar þíns lífs? 9. Og Jakob sagdi vid Faraó: dagar minnar útlegdar eru hundrad og þrjátíu ár; fáir og illir voru dagar míns lífs, og ná ekki lífdögum minna fedra í þeirra útlegd. 10. Sídan kvaddi Jakob Faraó, og gékk út frá Faraó.

11. Og Jósep fékk födur sínum og brædrum bústadi og gaf þeim fasteign þar sem best var í landinu Ramses eins og Faraó (Kóngur) hafdi bodid. 12. Og Jósep veitti forsorgun födur sínum og brædrum sínum og öllu húsi födur síns eptir þeirra fjölskyldu. 13. Og þar var ekki braud í öllu landinu, því hallærid var mikid og Egyptaland og Kanaansland örmagnadist af húngri. 14. Og Jósep safnadi ad sér (saman) öllu því silfri sem fannst í Egyptalandi og Kanaanslandi fyrir korn sem þeir keyptu; og Jósep lét allt silfrid í Faraós (Kóngsins) fjárhyrdslu. 15. Og þegar silfrid þverradi í Egyptalandi og í Kanaanslandi þá komu allir Egyptskir til Jóseps og sögdu: láttu

V: 11. J þessu héradi seigir Jósepus L. 2. c. 7. ad Kóngshjardirnar hafi verid.

oss hafa braud! hví skyldum vér deya fyrir aug-
um þér? því nú skortir silfur. 16. Og Jó-
sep mælti: komid híngad med ydar fénad, eg
skal géfa ydur nokkud fyrir hann, ef silfur
vantar. 17. Þá fóru þeir med fénad sinn til
Jóseps, og hann gaf þeim braud fyrir hesta,
fyrir saudfé, og fyrir nautpéning og fyrir
asna, og hann lét þá hafa braud þad árid fyr-
ir allan þeirra fénad.

18. Og sem þad ár var lidid, komu þeir
til hans á næsta ári og søgdu vid hann: vér
gétum ekki dulid þad fyrir vorum herra, ad
þared silfrid er þrotid, og fénadur vor er kominn
til vors herra, þá er nú ekki annad eptir handa
herra vorum enn líkamir vorir og jardir vor-
ar; 19. hví skyldum vér deya í þinni augsýn
bædi vér og vorar jardir? Kaup þú af oss
jardirnar fyrir braud, vér viljum med vorum
jørdum vera Faraós þrælar; og géf þú oss
sád, ad vér lifum og deyum ekki, og jardirnar
leggist ekki í eydi. 20. Þá keypti Jósep,
fyrir Faraó, allar jardir Egyptskra; því E-
gyptskir seldu, hver og einn sinn akur, því
húngrid þreyngdi ad. 21. Og svona eignad-
ist Faraó landid. Og hann lét fólkid skipta
um bústadi frá einum enda Egyptalands til
annars. 22. (Einar prestanna jardir keypti
hann ekki; því prestarnir høfdu sína vissa
hlutdeild af Faraó (Kóngi) og høfdu til at-
vinnu þá hlutdeild sem Faraó gaf þeim, og
seldu ekki sínar jardir). 23. Þá sagdi Jósep
vid fólkid: sjá! nú hefi eg keypt ydur og ydar
jardir Faraó til handa, hér hafid þér sád, og
sáid akrana; 24. en þad skal vera svo: fim-
túng af korninu skulud þér géfa Faraó, og fjór-
ir partarnir skulu vera ydur sád akranna, og
ydur til fædis og þeim sem eru í ydar húsum,
og handa ydar børnum. 25. Og þeir svør-
udu: þú vidheldur voru lífi! ef vér megum
ad eins finna nád í augum vors herra, svo
viljum vér vera Faraós þrælar! 26. Þann-
ig lagdi Jósep á jardir Egyptskra þennan
skatt, handa Faraó, fimtúng korns, sem hald-
ist hefur allt til þessa dags. Jardir prestanna
einar urdu ekki Faraós eign.

27. Og Israel bjó í Egyptalandi í Gosen
landi, og þeir eignudust þar fasteign, juku ættir
sínar og margføldudust mjøg. 28. En Jakob
lifdi 17 ár í Egyptalandi; og Jakobs æfi ár
voru hundrad fjørutíu og sjø ár. 29. Og sem
dagar Israels nálægdust daudann, kalladi hann
Jósep son sinn og sagdi vid hann: Efad þú
elskar mig, þá legg þína hønd undir mína lend,
og audsýndu mér þá elsku og trúfesti, ad þú jard-
ir mig ekki í Egyptalandi; 30. því eg vil liggja
hjá mínum fedrum, og þú skalt flytja mig burt
úr Egyptalandi, og jarda mig í þeirra greftr-
unarreit. Og hann mælti: eg vil gjøra eptir
þínum ordum. 31. Og hinn mælti: vinn þú
mér eid! og hann vann honum eid. Og Is-
rael tilbad og laut ad rúmbrúdinni.

## 48. Kapituli.

Jakob blessar Manasse og Efraim.

1. Eptir þetta skédi þad ad Jósep var sagt:
sjá! fadir þinn er sjúkur! og hann tók báda syni
sína med sér, Manasse og Efraim. 2. Þetta
var Jakob kunngjørt: sjá! sonur þinn Jósep kém-
ur til þín. Þá harkadi Israel af sér og sett-
ist upp í rúminu. 3. Og Jakob sagdi vid Jó-
sep: almáttugur Gud birtist mér í Lús í Kana-
anslandi og blessadi mig, 4. og sagdi vid mig:
sjá! eg vil gjøra þig frjóssamann og margfalda
þig, og gjøra þig ad mikilli þjód, og géfa þín-
um nidjum eptir þig þetta land til æfinlegrar
eignar. 5. Og nú skulu bádir synir þínir sem

---

A: 21. skipta um bústadi. þ: e: bædi til ad sýna eignarréttinn, og til ad láta ei eigandann sjá þá jørd er hann hafdi ordid ad selja sér til bjargar í annars hendi, því þad hefdi verid hugraun.

þér fæddust í Egyptalandi, ádur enn eg kom til Egyptalands, vera mínir; Efraim og Manasse skulu vera mínir, einsog Rúben og Simeon. 6. En þau børn sem þú hefur aflad eptir þá, skulu vera þín og teljast med brædrum sínum í þeirra erfd. 7. Þegar eg kom frá Mesopotamiu, dó Rakel hjá mér í Kanaans landi á leidinni, þegar eg átti skamt ófarid til Efrat og eg jardadi hana þar á veiginum til Efrat, það er Betlehem. 8. Þá sá Jakob báda sonu Jóseps og mælti: hverjir eru þessir? 9. Og Jósep sagdi vid fødur sinn: það eru synir mínir, sem Gud hefur gefid mér hér. Og hann mælti: leiddu þá til mín! ad eg blessi þá, 10. og augu Israels voru ordin dauf af elli, hann gat ekki sjed. Og Jósep leiddi þá til hans, og hann kyssti þá og tók sér í fáng. 11. Og Israel sagdi vid Jósep: eg bjóst aldrei vid ad sjá þig, og Gud hefur lofad mér ad sjá þín afkvæmi. 12. Og Jósep færdi þá frá knjám fødur síns og beigdi sitt andlit nidur til jardar. 13. Og Jósep tók þá báda, Efraim sér vid hægri hønd, gagnvart Israels vinstri hønd, og Manasse sér vid vinstri hønd, gagnvart Israels hægri hønd, og leiddi þá til hans. 14. En Israel rétti fram sína hægri hønd og lagdi á Efraims høfud, þótt hann væri ýngri, og sína vinstri hønd á Manasses høfud; viljandi hagadi hann svona høndunum, þó Manasse væri hinn frumgétni. 15. Og hann blessadi Jósep og sagdi: sá Gud fyrir hvers augliti fedur mínir, Abraham og Isaak geingu, sá Gud sem hefur alid ønn fyrir mér frá únga aldri fram á þennan dag; 16. sá eingill sem hefur frelsad mig frá øllu illu, hann blessi sveinana, nafn mitt verdi nefnt í þeim og nafn fedra minna Abrahams og Isaaks; ætt þeirra verdi mikil í landinu. 17. En er Jósep sá, ad fadir hans lagdi sína hægri hønd á Efraims høfud, fannst honum fátt um, og tók um høndina á honum, til ad flytja hana af Efraims høfdi, á Manasses høfud, 18. og sagdi vid fødur sinn: ekki svona, fadir minn! því þessi er sá frumgétni, legg þína hægri hønd á hans høfud! 19. en fadir hans vildi ekki og sagdi: eg veit það, sonur minn! eg veit það! hann verdur líka kynsæll, hann verdur mikill; en sá ýngri bródir verdur meiri, því hann og hans ætt verdur mikil þjód. 20. Svo blessadi hann þá hinn sama dag og mælti: þannig munu menn stíla gódar óskir í Israel og seigja: Gud gjøri þig sem Efraim og Manasse! og tók svona Efraim framyfir Manasse. 21. Og Israel sagdi vid Jósep: sjá! eg dey, og Gud mun vera med ydur og mun flytja ydur aptur í land ydar fedra. 22. Og eg géf þér eina landspildu ad gjøf fram yfir þína brædur, þá sem eg hefi tekid af Amoritum med mínu sverdi og med mínum boga.

## 49. Kapítuli.

Jakobs sídasti vilji, hann blessar sonu sína.

1. Og Jakob kalladi sonu sína og mælti: samansafnist, ad eg géti kunngjørt ydur það sem þér eigid í vændum sídar meir! 2. Komid saman og heyrid, Jakobs synir! heyrid Israel ydar fødur! 3. Rúben, þú ert minn frumgétin son, minn kraptur og frumburdur míns styrkleika; yfirburdir ad verdugleika, yfirburdir ad makt; 4. en ólgandi sem vatn skaltu ei hafa yfirburdi; því þú gékkst í sæng fødur þíns, flekkadir hana — í mína sæng gékk hann. 5. Simeon og Levi, þeir eru brædur, verkfæri gudleysis (er) þeirra sverd, 6. mín sál komi ekki í þeirra rádsamkomu, mitt hjarta ekki í þeirra samkvæmi, því í brædi

V. 16. þeir haldi á lopt mínu nafni sem mínir fyrir. V. 22. lærdir menn halda ad Sekem það hebreska sem stendur í textanum géti ei verid stadarnafnid, heldur sé það arab. ord sem þýdi: gjøf. Jakob nádi ei heldur Sikem af Amoritum, heldur tóku synir hans inn stadinn frá Hevitum.

sinni-drápu þeir manninn, og í heift sinni skáru þeir á aflsinar nautsins, 7. bølvud sé þeirra reidi sem er ofbeldi og grimd sem er hamslaus! Eg skifti þeim í Jakob, og tvístra þeim í Ísrael. (Jós. 19, 1. 21, 3.). 8. Júda! brædur þínir munu vegsama þig, þín hønd er á hálsi þinna óvina, þér skulu lúta synir fødur þíns. 9. Júda er úngt ljón, af bráðinni þroskast minn son, hann liggur, hann hvílist sem ljón og sem ljóns-inna, hver þorir ad egna hann á fætur? 10. Ekki fer veldis spíran frá Júda, ekki herstjórnar sprotinn frá hans fótum fyrr enn komid er til Siló, og fólkid mun honum hlýda, 11. hann bindur vid víntréd sinn asna, og vid ágjætan vínvid son sinnar øsnu. Hann þvær í víni sín klædi, og í vínberja løg sína kápu, 12. raud eru hans augu af víni, og hvítar hans tennur af mjólk. 13. Sebúlon býr vid sjóinn, hann býr þar sem skipin eru, hans land veit ad Sidon. (Jós: 19, 10). 14. Issaskar er bein sterkur asni, hann liggur á milli lækjanna. 15. Og hann sjer ad hvíldarstadurinn er gódur, og ad landid er elskulegt; hann beigir sínar herdar undir byrdar, og leggur á sig þræla vinnu. 16. Dan, mun dæma sitt fólk, sem hver ønnur Ísraels ættkvísl. 17. Dan er høggormur á veigi, og eiturormur á gøtu; hann bítur í hæl hestsins, og reidmadurinn rýkur apturábak. 18. Þinni hjálp treysti eg Drottinn! 19. Ræningja flokkur fer ad Gad, en hann nær í þá øftustu. 20. Frá Asser kémur feitmetid, hann géfur Kónga krásir. 21. Naftali er fyrirferdar mikid ólíutré, þad útþenur sínar føgru greinir. 22. Jósep er grein hins frjóssama vidar, grein ávaxtatrésins vid uppsprettuna, hans greinir vaxa uppyfir vegginn. 23. Þeir egndu hann til og skutu, og bogmenn ofsóktu hann. 24. En bogi hans reyndist stinnur, og máttur hans handa fimur. Af hendi ens voldugа Jakobs (Guds) frá þeim sem geymir Ísraels stein, (28, 12. 13). 25. frá Gudi fødur þíns, sem hjálpadi þér, frá þeim almáttuga sem blessadi þig, komi blessan himinsins ad ofan, blessan djúpsins ad nedan, blessan brjósta og módurlífs. 26. Blessan fødur þíns yfirstígur blessan þeirra gømlu fjalla, og afbragds hædanna unan! hún komi yfir Jóseps høfud og í hvirfil hans, sem er afbragd medal sinna brædra! 27. Benjamín er úlfur sem sundur rífur, á morgnana etur hann bráð, á kvøldin skiptir hann herfángi.

28. Þessir eru allir tólf kynþættir Ísraels, og þetta þad sem fadir þeirra vid þá taladi; og svo blessadi hann þá og blessadi sérhvern sérlegri blessan. 29. Og hann baud þeim og mælti til þeirra: eg mun safnast til míns fólks, jardid mig þá hjá mínum fedrum, í þeim hellir, sem er á akri Hetitans Efrons, 30. í þeim hellir sem er á akrinum Makfela gégnt Mamre í Kannaans landi, hvern Abraham keypti med akrinum, af Hetitanum Efron, til greftrunar eignar. 31. Þar hafa þeir jardad Abraham og konu hans Søru; þar hafa þeir jardad Ísak og konu hans Rebekku, og þar hefi eg jardad Leu, 32. á þeim keypta akri og í hellirnum þar á, sem keyptur var, af Hets sonum. 33. Og sem Jakob hafdi lokid þessum skipunum til sona sinna, lagdi hann fætur sína uppí rúmid, og andadist og safnadist til síns fólks.

## 50. Kapítuli.

1.) Jakobs útfør. 2.) Jóseps andlát.

1.) 1. Jósep lagdist þá ofanad andliti fødur síns og grét yfir honum og kysti hann. 2. Og Jósep baud sínum þjónum læknurunum, ad smyrja fødur sinn. Og læknararnir smurdu Ísrael. 3. Og nú lidu 40 dagar,

V: 10. Til Siló þ. e: inni Kanaansland þángad til fridur er feinginn. Jós: 16, 6. Dóm b. 18, 31. 1 Sam: 1, 3. 3, 21.
V. 18. Þad land sem skiftist Dans ættkvísl var helst undirorpid árásum óvina; því þessi bæn hér.

því á smurníngunni stendur í 40 daga. Og Egyptskir syrgdu hann í 70 daga. 4. Og sem sorgar dagarnir voru lidnir, kom Jósep ad máli vid hyrdmenn Faraós og mælti: hafi eg fundid nád fyrir ydar augum, þá berid Faraó þessi mín ord: 5. fadir minn tók af mér eid og sagdi: sjá! eg dey, þú skalt jarda mig í minni grøf sem eg keypti mér í Kanaanslandi, þar skaltu grafa mig; lofa þú mér því ad fara, ad eg jardi fødur minn, og komi svo aptur. 6. Og Faraó sagdi: far þú og jarda fødur þinn, eins og þú hefur honum svarid. 7. Og Jósep fór ad jarda fødur sinn og allir þénarar Faraós þeir eldstu af hans húsi, og allir øldúngar Egyptalands. 8. Og allt Jóseps hús, og hans brædur og hans fødurs hús; einasta létu þeir eptir verda í Gosen landi børn sín og saudi sína og naut sín. 9. Þeir fóru bædi á vøgnum og á hestum, og þad var mikill skari. 10. Og þeir komu á vøllinn Atad sem liggur hinumegin vid Jórdan. Þar héldu þeir mikin og beiskan harm, og hann lét harma fødur sinn í sjø daga. 11. Og sem innbúar landsins, Kananítar, sáu harminn á vellinum Atad, søgdu þeir: mikill er harmur þeirra Egyptsku; því kølludu þeir vøllinn: Abel—Misraim, (harmur, eda eiginlega vøllur Egyptskra) hann liggur hinumeigin vid Jórdan. 12. Þannig gjørdu synir Jakobs eins og hann hafdi fyrirmælt. 13. Og synir hans færdu hann til Kanaanslands, og jørdudu hann í hellirnum á akrinum Makfela sem Abraham hafdi keypt, med akrinum, til greftrunar eignar af Hetitanum Efron, gagnvart Mamre.

2.) 14. Og Jósep fór aptur til Egyptalands, hann og hans brædur og allir sem med honum høfdu farid, ad jarda fødur hans, eptir ad hann hafdi jardad fødur sinn. 15. En sem Jóseps brædur sáu, ad fadir þeirra var dáinn, hugsudu þeir: en ef Jósep hatar oss og launar nú allt þad illa sem vér høfum gjørt honum! 16. og þeir gjørdu Jósep svo látandi ordsendíngu: fadir þinn baud ádur enn hann dó og mælti: 17. Þér skulud bera Jósep þessi mín ord: fyrirgéf brædrum þínum mótgjørd þeirra og synd, ad þeir adhøfdust svo illt vid þig; svo fyrirgéf nú mótgjørdina þjónum þess Guds sem fadir þinn dýrkadi; og Jósep grét þá hann heyrdi þetta. 18. Brædur hans komu líka sjálfir og féllu fram fyrir honum og søgdu: sjá! vér erum þínir þrælar. 19. Og Jósep sagdi til þeirra: óttist ekki! er eg ei undir Guds vardveitslu? 20. Þér ætludud ad gjøra mér illt, en Gud snéri því til góds, til ad gjøra þad sem nú er skéd, ad halda mørgu fólki vid lífid. 21. Og verid óhræddir, eg skal annast ydur og ydar børn! Og hann hughreysti þá og taladi vid þá blídlega. 22. Svo bjó Jósep í Egyptalandi, hann og hans fødurs hús. Og Jósep lifdi hundrad og tíu ár. 23. Og Jósep sá nidja Efraims í þridja lid. Og synir Makirs sonar Manassis fæddust á Jóseps kné. 24. Og Jósep sagdi vid brædur sína: eg dey, en Gud mun vissulega vitja ydar og flytja ydur úr þessu landi, inní þad landid, sem hann hefur svarid (ad géfa) Abraham, Isaak og Jakob. 25. Og Jósep tók eid af Israels sonum og mælti: Gud mun vitja ydar, flytjid þá mín bein hédan. 26. Og svo dó Jósep hundrad og tíu ára gamall; en þeir smurdu hann og kistuløgdu hann í Egyptalandi.

# EXODUS.

## Önnur Bók Mósis.

### 1. Kapítuli.

Um ánaud Israelsfólks í Egyptalandi.

1. Þessi eru nøfn Israelssona, sem komu med
Jakob til Egyptalands, hverr med sitt heimilis-
fólk: 2. Rúben, Símon, Leví, Júda, 3. Is-
askar, Sebúlon, Benjamín, 4. Dan, Naftalí,
Gad og Aser; 5. en alls voru nidjar Jakobs
sjøtýgi manns med Jósep, sem var í Egypta-
landi. 6. En er Jósep var dáinn, og allir
brædur hans, og allir samtída menn þeirra, 7.
þá ærludust Israels nidjar og margføldudust,
jukust og fjølgudu svo mjøg, ad landid vard
fullt af þeim.
8. Þá hófst til ríkis í Egyptalandi nýr
Konúngur, sem eingin deili vissi á Jósep. 9.
Hann sagdi til síns fólks: sjáid! þjód Israels-
manna hefir aukist og fjølgad meir enn vér;
10. látum oss fara kjænlega ad vid þá, svo
þeir eigi fjølgi; því vera má, ef ófridur ad
kémur, ad þessi lýdur gángi í lid med óvinum
vorum, berjist í móti oss, og fari svo af landi
burt. 11. Nú voru settir yfir þá verkstjórar, sem
skyldu þjá þá med þræla vinnu; því þá var
verid ad byggja fyrir Faraó vistaborgirnar Pít-
om og Raamses; 12. en því meir sem þeir
voru þjádir, þess meir fjølgudu þeir og út-
breiddust, svo menn tóku til ad óttast Israels-
menn. 13. Egyptalandsmenn þjádu Israels-
lýd vægdarlaust, 14. og gjørdu þeim lífid leidt
med þúngum þrældómi, med leireltu, tigul-
steinagjørd og allskonar akurvinnu, og ødru
erfidi, er þeir løgdu vægdarlaust á þá. 15.
Þá mælti Egyptalands Konúngur til þeirra
Ebresku ljósmædra, hét ønnur Sifra, en hin
Púa; 16. hann sagdi: þegar þér sitjid yfir
þeim Ebresku konum, og þér sjáid, þá barnid
liggur í laugartroginu, ad þad er sveinn, þá
líflátid hann, en sé þad meybarn, þá má þad
lifa. 17. En ljósmædurnar óttudust Gud,
og gjørdu eigi þad sem Egyptalands Konúng-
ur baud þeim, heldur létu sveinbørnin lifa. 18.
Þá kalladi Egyptalands Konúngur ljósmæd-
urnar fyrir sig, og sagdi til þeirra: hví hafid
þér svo gjørt, ad láta sveinbørnin lifa? 19.
Ljósmædurnar svørudu Faraó: þær Ebresku
konur eru ólíkar enum Egyptsku; þær eru
hraustar, og ádur enn ljósmódirin kémur til
þeirra, eru þær búnar ad fæda. 20. Þar
fyrir gjørdi Gud ljósmædrunum gott, og fólk-
id fjølgadi og vard mjøg margt, 21. og fyrir
þá søk ad ljósmædurnar óttudust Gud, þá lét
hann ættir Gydínga aukast. 22. Þá baud
Faraó øllu' sínu fólki og sagdi: kastid í ána
øllum þeim sveinbørnum, sem fædast; en øll
meybørn meiga lífi halda.

### 2. Kapítuli.

Um fæding Móses, uppfóstur, flótta og kvonfáng.

1. Madur nokkur af Leví — ætt gékk ad
eiga eina af dætrum Leví. 2. Þessi kona
vard barnshafandi, og fæddi son; og er hún
sá, ad sveinninn var fagur, þá leyndi hún hon-
um í 3 mánudi. 3. En er hún mátti ei leyna
honum leingur, bjó hún honum til ørk af reyr,
bræddi hana med jardlími og biki, lagdi svein-
inn þar í, og lét ørkina út í sefid hjá árbakk-

anum; 4. en systir sveinsins stód þar lángt frá, til ad vita hvad um hann yrdi. 5. Dóttir Faraós gékk ofan ad ánni til ad lauga sig, og geingu þjónustumeyar hennar eptir árbakkanum; hún leit ørkina í sefinu, og sendi eina af þernum sínum eptir henni. 6. En er hún lauk upp ørkinni, sá hún barnid; og sjá! þad var sveinbarn, og var ad gráta! Hún kénndi í brjósti um hann, og sagdi: þetta er eitt af sveinbørnum Ebreskra. 7. Þá sagdi systir hans vid dóttur Faraós: á eg ad fara og sækja fyrir þig einhverja fóstru af þeim Ebresku konum, ad hún hafi sveininn á brjósti fyrir þig? 8. Dóttir Faraós svaradi henni: far þú; en stúlkan fór, og sókti módur sveinsins. 9. Dóttir Faraós sagdi til hennar: tak þenna svein med þér, og haf hann á brjósti fyrir mig, og skal eg launa þér fyrir; tók konan þá sveininn, og hafdi hann á brjósti. 10. En er sveinninn var vaxinn, fór hún med hann til dóttur Faraós; tók hún hann í sonarstad, og kalladi hann Móses, því hún sagdi: eg hefi tekid hann upp úr vatninu.

11. Þá er Móses var ordinn fulltída madur, fór hann eittsinn á fund ættbrædra sinna, og sá á þrældóm þeirra; hann sá, hvar Egyptskur madur laust Ebreskan mann, einn af kynsmønnum hans. 12. Hann litadist þá um, og er hann sá aungvan mann, vó hann hinn Egyptska, og huldi hann í sandi. 13. Daginn eptir gékk hann út, og sá tvo Ebreska menn rysk jast, þá mælti hann vid þann, sem á raungu máli átti ad standa: hví slær þú náúnga þinn? 14. Hinn svaradi: hvørr hefir gjørt þig ad yfirmanni og dómara yfir okkur? er þér í hug ad drepa mig, eins og þann Egyptska, sem þú drapst? Þá vard Móses hræddur, og hugsadi med sér: þad er þá ordid uppvíst! 15. En sem Faraó frétti þenna atburd, leitadi hann eptir ad drepa Móses; en Móses flýdi fyrir Faraó, og tók sér bústad í Midíanslandi, og bjó þar hjá vatnsbólinu. 16. Kénnimadurinn í Midíanslandi átti sjø dætur; þær komu þángad, jusu vatn, og fyltu þrórnar til ad brynna fénadi fødur síns. 17. Þá komu ad hjardmenn, og bægdu þeim frá; en Móses reis upp, og hjálpadi þeim, og brynti fénadi þeirra. 18. Þá þær komu heim til Reguels, fødur síns, mælti hann: hví komid þér svo skjótt heim í dag? 19. Þær svørudu: Egyptskur madur hjálpadi oss frá hjardmønnunum, jós líka vatnid upp fyrir oss, og vatnadi fénu. 20. Hann sagdi þá til dætra sinna: hvar er hann þá? hvers vegna látid þér þenna mann standa úti? kallid á hann, ad hann eti med oss! 21. Móses lét sér vel líka ad vera hjá þessum manni, og hann gifti Mósi Sippóru (sonar) dóttur sína. 22. Hún ól son, þann lét hún heita Gersom; því hann sagdi: eg hefi verid géstur í ókunnu landi.

23. Laungum tíma þar eptir dó Egyptalands Konúngur. En Israels menn andvørpudu undir ánaudinni, og kveinudu, og þeirra ánaudarkvein sté upp til Guds; 24. og Gud heyrdi þeirra andvarpanir, og mintist síns sáttmála vid Abraham, Isaak og Jakob; 25. Gud leit til Israelsmanna, og vissi hverninn þeim leid.

## 3. Kapítuli.

*Móses er kalladur af Gudi til ad leida Israels fólk út af Egyptalandi.*

1. Móses var fjárhirdir hjá Jetró, teingdafødur sínum, kénnimanni í Midíanslandi, og héldt fénu vestur í eydimørkina, og kom til Guds fjalls, Hórebs. 2. Þar byrtist honum Eingill Drottins í eldsloga, sem lagdi út af þyrnirunni nokkurum; og sá hann, ad runnurinn logadi, en brann ekki. 3. Þá sagdi Móses: eg vil gánga nær, og sjá þessa hina miklu sýn, hvad til þess komi, ad runnurinn brennur ekki. 4.

En sem Drottinn sá, ad hann veik þángad til ad skoda þetta, þá kalladi Gud til hans úr runninum, og sagdi: Móses! Móses! Hann svaradi: hér em eg: 5. Hann sagdi: gakk ekki híngad! drag skó þína af fótum þér, því sá stadur, er þú stendur á, er heiløg jørd. 6. Hann sagdi enn fremur: eg em Gud fødur þíns, Gud Abrahams, Gud Isaaks, og Gud Jakobs. Þá byrgdi Móses sitt andlit, því hann þordi ekki ad líta uppá Gud. 7. Drottinn sagdi: eg hefi sannlega sjed eymd míns fólks í Egyptalandi, og heyrt, hversu þad kveinar undan þeim, sem þrælka þad; eg veit, hvad bágt þad á. 8. Eg em ofan farinn til ad frelsa þad af hendi Egyptalands manna, og til ad leida þad út af því landi og til þess lands, sem er gott og vídlendt, til þess lands, sem flýtur af mjólk og hunángi, í stødvar þeirra Kananíta, Hetíta, Amoríta, Feresíta, Hevíta og Jebusíta. 9. Nú med því ad kall Israelsmanna er komid til mín, og eg þar med hefi sjed þá kúgun, med hvørri Egyptar þrøngva þeim: 10. þá far þú nú, eg vil senda þig til Faraós, og þú skalt leida mitt fólk, Israels menn, út af Egyptalandi. 11. Móses sagdi til Guds: hvørr em eg, ad eg fari til fundar vid Faraó, og leidi Israelsmenn út af Egyptalandi? 12. Hann sagdi: eg vil vera med þér; og þad skaltu til marks hafa, ad eg hefi sendt þig, ad þá þú hefir leidt fólkid út af Egyptalandi, skulud þér þjóna Gudi á þessu fjalli. 13. Móses sagdi til Guds: en þegar eg kém til Israelsmanna, og segi þeim: Gud fedra ydvarra sendi mig til ydar, og þeir segja til mín: hvørt er nafn hans? hverju skal eg þá svara? 14. Gud sagdi til Mósis: eg verd sá sem eg er; og hann sagdi: svo skaltu segja Israelsmønnum: „sá sem verdur (þad sem hann er)", hann sendi mig til ydar. 15. Gud sagdi enn fremur til Móses: svo skaltu segja Israelsmønnum: Drottinn, Gud fedra ydvarra, Gud Abrahams, Gud Isaaks, og Gud Jakobs, sendi mig til ydar; þetta er mitt nafn æfinlega, og med því skal nefna mig um aldur og æfi. 16. Far nú, og safna saman høfdíngjum Israels fólks, og mæl vid þá: Drottinn, Gud fedra ydvarra, Gud Abrahams, Isaaks og Jakobs, birtist mér og sagdi: eg hefi vitjad ydar, og sjed medferdina á ydur í Egyptalandi; 17. og eg hefi sagt: eg vil leida ydur úr Egyptalands ánaud inn í land þeirra Kananíta, Hetíta, Amoríta, Feresíta, Hevíta og Jebúsíta, í þad landid, sem flýtur af mjólk og hunángi. 18. Þeir munu skipast vid ord þín, og skaltu þá gánga med høfdíngjum Israelsmanna fyrir Egyptalands Konúng, og segja til hans: Drottinn, Gud Ebreskra manna, hefir birtst oss; þar fyrir leyf oss nú ad fara þrjár dagleidir á eydimørk, ad vér færum fórnir Drottni, Gudi vorum. 19. Veit eg þó, ad Egyptalands Konúngur mun eigi leyfa ydur burtførina, og jafnvel ekki þó hardt sé á honum tekid. 20. En eg vil útrétta mína hønd, og ljósta Egyptalandsmenn med allskonar undrum, sem eg mun þar fremja medal þeirra, og þá skal hann sleppa ydur. 21. Eg skal láta þetta fólk hafa þad lán hjá Egyptskum, ad þá þér farid í burt, skulud þér eigi tómhendtir fara; 22. því hvør kona skal fá ad láni hjá grannkonu sinni og sambýliskonu silfurkér, gullkér og klædi, og þad sama skulud þér láta sonu ydra og dætur í burt bera og skulud þér taka þad frá Egyptskum.

## 4. Kapítuli.

*Móses fær vald til jarteiknagjørdar, og fer til Egyptalands.*

1. Móses svaradi og sagdi: sjá! þeir munu ekki trúa mér og eigi skipast vid ord mín, heldur segja: Gud hefir ekki vitrast þér! 2.

Drottinn sagdi til hans: hvad er þad, sem
þú hefir í hendi þér? Hann svaradi: stafur
er þad. 3. Hann sagdi: kasta þú honum á
jørdina! Hann gjørdi svo, og vard þá staf-
urinn ad høggormi, og hrøkk Móses undan
honum. 4. Drottinn sagdi til Mósis: rétt út
hønd þína, og gríp um ormshalann; hann
rétti út hønd sína, og tók um hann, og vard
hann þá aptur ad staf í hendi hans. 5. Þar
fyrir munu þeir trúa, ad Drottinn, Gud fed-
ra þeirra, Gud Abrahams, Gud Isaaks og Gud
Jakobs, hafi vitrast þér. 6. Drottinn sagdi enn
fremur til hans: stiktu hendi þinni í barm
þér! Hann stakk hendi sínni í barm sér, og
tók hana út aptur; var þá høndin líkþrá, og
snjóhvít. 7. Hann sagdi: stiktu hendinni í
barm þér aptur! Hann stakk henni aptur í
barminn, en þá hann tók hana út aptur úr
barminum, var hún ordin jafngód og med
holdslit. 8. Vilji þeir nú ekki trúa þér, eda
skipast vid hina fyrri jarteiknina, þá munu þeir
skipast vid hina sídari. 9. En ef þeir vilja
hvørugri þessari jarteikn trúa, eda skipast láta
vid ord þín, þá tak vatn úr ánni, og aus því
upp á þurt land, og mun þá þad vatn, er
þú tekur úr ánni, verda ad blódi á þurrlend-
inu. 10. Þá sagdi Móses til Drottins: heyr,
Drottinn, ekki hefi eg verid ordfær madur hér
til, og ekki heldur ordid þad sídan þú taladir
til þjóns þíns, því mér er tregt um málfæri
og túngutak. 11. Drottinn sagdi til hans:
hvørr géfur manninum málid? eda hvørr gjørir
þann mállausa eda daufa, þann skygna eda
blinda? er þad ekki eg, Drottinn, sem gjøri þad?
12. Far nú, eg skal styrkja mál þitt, og kénna
þér hvad þú skalt mæla. 13. Hann svaradi:
heyr, Drottinn, sendtú hvørn þú vilt! 14.
Þá vard Drottinn stórlega reidur vid Móses,
og sagdi: skyldi eg ekki vita, ad Aron bródir
þinn, Levítinn, er vel ordfær madur? sjá!
hann skal fara til móts vid þig, og þá hann
sjer þig, mun hann taka þér feginsamlega; 15.
Þú skalt tala til hans og leggja ordin í munn
honum, en eg mun styrkja mál þitt og mál
hans, og kénna ykkur hvad þér skulud gjøra;
16. Hann skal tala fyrir þig til fólksins, og
hann skal vera þér sem munnur, en þú skalt
vera honum sem Gud. 17. Staf þenna skaltú
hafa í hendi þér, og med honum skaltú jar-
teiknirnar gjøra.

18. Sídan fór Móses aptur til Jetrós,
teingdafødur síns, og mælti til hans: leyf mér
ad fara og vitja ættbrædra minna, þeirra sem
á Egyptalandi eru, svo eg viti hvert þeir
eru enn á lífi. Jetró svaradi honum: far þú
í fridi! 19. Drottinn sagdi vid Móses í Midí-
anslandi: far þú, og hverf aptur til Egypta-
lands, því þeir eru allir daudir, er leitudu eptir
lífi þínu. 20. Móses tók med sér konu sína og
sonu, lét þau rída á øsnum, og fór aptur til
Egyptalands, og hafdi Guds staf í hendi sér.
21. Drottinn sagdi vid Móses: sjá svo til, þá er
þú kémur aptur í Egyptaland, ad þú fremjir øll
þau undur fyrir Faraó, sem eg hefi fyrir þig
lagt; en eg mun láta hjarta hans hardna, svo
hann mun eigi láta fólkid laust. 22. Þú skalt
segja vid Faraó: Svo segir Drottinn: Is-
raels lýdur er minn frumgétinn sonur; 23.
eg segi þér, lát son minn fara, svo hann megi
þjóna mér, en viljir þú hann ei lausann láta,
þá skal eg ljósta í hel þinn frumgétna son. 24.
En er Móses var í herbergi nokkuru á leidinni,
rédst Drottinn í móti honum og vildi deyda
hann. 25. Þá tók Sippora steinkníf, og af-
sneid yfirhúd sonar síns, og lagdi fyrir fætur
hans, og sagdi: þú ert minn blódbrúdgumi!
26. Þá lét hann hann vera; en hún nefndi
blódbrúdguma, vegna umskurnarinnar.

27. Drottinn sagdi til Arons: far þú út í
eydimørkina til móts vid Móses; hann fór og

mætti honum á Guds fjalli, og kysti hann. 28. Móses sagdi Aroni øll ord Drottins, þess er hann sendi, og allar þær jarteiknir, sem hann hafdi bodid honum ad gjøra. 29. Þeir Móses og Aron fóru nú og stefndu saman øllum høfdíngjum Israelsmanna, 30. og flutti Aron øll þau ord, er Drottinn hafdi mælt vid Móses, og gjørdi táknin í augsýn fólksins; 31. og fólkid trúdi; og sem þeir heyrdu, ad Drottinn hafdi vitjad Israelsmanna og litid á eymd þeirra, þá féllu þeir fram og tilbádu.

## 5. Kapituli.

*Móses gjørdur aptrreka af Faraó; ánaud Israelsfólks hardnar.*

1. Eptir þad geingu þeir Móses og Aron á fund Faraós, og søgdu: svo segir Drottinn, Gud Israelsmanna: géf fólki mínu burtfararleisi, svo þad meigi halda mér hátíd í eydimørkinni. 2. Faraó sagdi: hvørr er sá Drottinn, ad eg skuli gégna honum til þess ad sleppa Israelsmønnum; eg þekki ekki þann Drottinn, og Israelsmønnum sleppi eg ekki. 3. Þeir søgdu: Gud Ebreskra manna hefir vitrast oss; leif oss ad fara þriggja daga leid út í eydimørkina, til ad færa fórnir Drottni, Gudi vorum, ad hann eigi slái oss med drepsótt eda sverdi. 4. Egyptalands Konúngur sagdi til þeirra: hví viljid þid, Mósis og Aron, taka fólkid úr vinnunni? Farid aptur til ydvars erfidis! 5. Faraó sagdi enn fremur: nú, þegar fólkid er ordid svo margt í landinu, þá viljid þér láta þad hætta ad vinna! 6. Sama dag baud Faraó verkstjórum þeim, er settir voru yfir fólkid, og tilsjónarmønnum þess, og sagdi: 7. þér skulud eigi hér eptir fá fólkinu hálmstrá til ad brenna tígulsteina vid, eins og þér hafid gjørt hér til; þeir skulu sjálfir fara og safna sér stráum; 8. en þó skulud þér setja þeim fyrir ad gjøra jafnmarga tígulsteina, og þeir hafa gjørt hér til, og minkid ekki af vid þá. Þeir eru ordnir latir; þessvegna kalla þeir, og seigja; vér viljum fara og færa fórnir Gudi vorum. 9. Þad verdur ad þýngja vinnunni á fólkinu, svo þad hafi nokkud ad starfa og hlýdi ekki á lýgi fortølur. 10. Þá geingu verkstjórar og tilsjónarmenn fólksins út, og mæltu svo til fólksins: Svo segir Faraó: eg læt eingin hálmstrá géfa ydur; 11. farid sjálfir og takid ydur strá, hvar sem þér finnid, en þó skal alls ekkért minka ydar ánaudarverk. 12. Þá fór fólkid vídsvegar um allt Egyptaland ad leita sér hálmleggja, til ad hafa í stad stráa. 13. Verkstjórarnir ráku eptir þeim, og søgdu: ljúkid dag hvern vid ydar ákvedna dagsverk, eins og medan þér høfdud stráin. 14. Og tilsjónarmenn Israels fólks, sem verkstjórar Faraós høfdu sett yfir þá, voru bardir, og sagt vid þá: hví hafid þér ei lokid vid ydar ákvedna tígulgjørdar verk í dag og í gjær, eins og ádur fyrr. 15. Tilsjónarmenn Israelsmanna geingu þá fyrir Faraó, kølludu og søgdu: hví fer þú svo med þjóna þína? 16. Þínum þjónum eru eingin strá géfin, og þó er heimtad af oss ad gjøra tígulsteina, og þar á ofan eru þjónar þínir bardir, og er þitt fólk skuld í þessu. 17. Hann sagdi: þér erud latir og nennid aungvu! þessvegna segid þér: látum oss fara og færa Drottni fórnir. 18. Farid nú og erfidid! eingin strá skal géfa ydur, en þó skulud þér greida þá ákvednu tígulsteina. 19. Þá sáu tilsjónarmenn Israelsmanna, í hvert óefni komid var fyrir þeim, þegar sagt var vid þá: þér skulud aungvu færri tígulsteina gjøra! því ákvedna dagsverki skal aflokid hvern dag! 20. Þá þeir komu út frá Faraó, geingu þeir fram á þá Móses og Aron, sem stódu gagnvart þeim, 21. og søgdu til þeirra: Drottinn líti ykkur, og dæmi! þar sem þid hafid gjørt oss óvinsæla hjá Faraó og þjónum hans, og feingid þeim svo sverdid í hendurnar til ad drepa oss med. 22. Þá snéri Móses sér til

Drottins, og sagdi: hví gjørir þú svo illa vid þetta fólk? hvi hefur þú þá sendt mig? 23. því sídan eg gékk fyrir Faraó til ad tala í þínu nafni, hefir hann kúgad lýdinn, og þú hefir þó ekki frelsad þitt fólk.

## 6. Kapítuli.

*Fyrirheit Drottins. Frá kynþætti Mósis.*

1. Drottinn sagdi vid Móses: þú skalt nú sjá, hvad eg vil gjøra Faraó; því fyrir voldugri hendi skal hann þá lausa láta, fyrir voldugri hendi skal hann keyra þá burt úr landi sínu.

2. Gud taladi til Móses, og sagdi til hans: eg em Drottinn! 3. eg vitradist Abraham, Ísak og Jakob, sem almáttugur Gud; en mitt nafn „Hann sem verdur (þad sem hann er)" var þeim ekki kunnugt. 4. Eg gjørdi vid þá þann sáttmála, ad géfa þeim Kanaansland, þad útlegdarland, í hvørjn þeir voru sem útlendir. 5. Eg hefi og heyrt kveinstafi Ísraelsmanna, sem Egyptar hafa ad þrælum gjørt, og eg hefi minst míns sáttmála. 6. Þar fyrir seg Ísraelsmønnum: eg em Drottinn, eg vil færa ydur undan ánaudaroki Egyptskra, og þrífa ydur úr þeirra þrældómi, og frelsa ydur med útréttum armlegg og stórum refsidómum. 7. Eg vil velja ydur fyrir mitt fólk, og vera ydar Gud, og þér skulud reyna, ad eg em Drottinn, ydar Gud, sem færi ydur undan ánaud Egyptskra. 8. Eg vil leida ydur inn í þad land, sem eg sór ad géfa Abraham, Ísaak og Jakob; þad land vil eg géfa ydur til eignar; eg em Drottinn! 9. Móses sagdi Ísraelsmønnum þetta, en þeir sintu honum ekki søkum hugarángurs og vegna þess stránga þrældóms.

10. Þá taladi Drottinn vid Móses, og sagdi: 11. gakk á tal vid Faraó, Egyptalands Kóníng, og bid hann leyfa Ísraelsmønnum burt úr landi sínu. 12. Móses svaradi Drottni, og sagdi: sjá! Ísraelsmenn vilja ei géfa gaum ad ordum mínum, hvørsu mun þá Faraó skipast vid þau, þar sem eg er madur málstadur! 13. Þá taladi Drottinn vid Móses og Aron, og fékk þeim þann bodskap til Ísraelsmanna og Faraós, Egyptalands Koníngs, ad útleida Ísraelsmenn af Egyptalandi.

14. Þessir eru ættfedur þeirra: synir Rúbens, er var frumgétinn sonur Ísraels, voru þeir Hanok Palú, Hesron og Karmí; þad er kynslód Rúbens. 15. Synir Símeons voru þeir Jemúel, Jamín, Ohad, Jakín, Sóhar og Sál, sem var sonur Kanverskrar konu; þetta er kynslód Símeons. 16. Þessi eru nøfn Leví sona med sínum kynþáttum: Gerson, Kahat og Merarí; vard Leví 137 ára ad aldri. 17. Synir Gersons voru þeir Libni og Símeí med sinni kynslód. 18. Synir Kahats voru þeir Amram, Jesehar, Hebron og Usíel; vard Kahat 133 ára gamall. 19. Synir Meraris voru þeir Maheli og Músí; þetta er Leví kynslód med sínum ættleggjum. 20. Amram fékk Jókebedar, fødursystur sinnar, og átti hún vid honum þá Aron og Mósis; vard Amram ad aldri 137 ára. 21. Synir Jesehars voru þeir Kóra, Nefeg og Sikrí. 22. Synir Usíels voru þeir Mísael, Elsafan og Sitrí. 23. Aron fékk Elísebu, dóttur Amínadabs, systur Nahasons, og átti hún vid honum þá Nadab, Abíhú, Eleasar og Ítamar. 24. Synir Kóru voru þeir Assír, Elkana og Abíasaff; þad er kynslód Kórúnga. 25. Eleasar, sonur Arons, kvongadist og fékk einnar af dætrum Pútíels, og átti vid henni Pínehas. Þetta eru ættfedur Levítanna og þeirra kynþættir.

26. Þad er þessi Aron og Móses, hvørjum Drottinn baud: leidid Ísraelsmenn út af Egyptalandi med øllu lidi þeirra; 27. þad voru þeir, sem komu ordi á vid Faraó, Egyptalands Kóníng, ad færa Ísraelsmenn út af Egyptalandi, þessi Móses og Aron. 28. Og þann tíma er

Drottinn átti tal vid Móses í Egyptalandi, 29. taladi hann til hans þessum ordum: eg em Drottinn! seg Faraó, Egyptalands Koníngi, allt hvad eg hefi bodid þér. 30. Móses svaradi, þar sem hann stód frammi fyrir Drottni: sjá! eg er madur málstadur; hvørsu má Faraó þá skipast vid ord mín?

## 7. Kapítuli.

Fyrsta undur: vatn verdur ad blódi.

1. Drottinn sagdi vid Móses: eg hefi sett þig sem Gud yfir Faraó, en Aron bródir þinn skal vera þinn spámadur (túlkur). 2. Þú skalt tala allt þad eg býd þér, en Aron bródir þinn skal flytja vid Faraó, ad hann géfi Ísraelsmønnum fararleyfi úr landi sínu. 3. En eg vil forherda hjarta Faraós, og fremja margar jarteiknir og stórmerki í Egyptalandi. 4. Faraó mun ekki skipast vid ord ykkar, og skal eg þá leggja mína hønd á Egyptaland, og útleida þadan mína herskara, Ísraels nidja, med stórum refsidómum; 5. skulu Egyptar fá ad vita, ad eg em Drottinn, þá eg útrétti mína hønd yfir Egyptaland og útleidi Ísraels nidja þadan. 6. Þeir Móses og Aron gjørdu nú sem Drottinn hafdi þeim um bodid; 7. var Móses áttrædur, en Aron hafdi 3 um áttrædt, þá þeir tøludu vid Faraó.

8. Drottinn taladi vid þá Móses og Aron, og sagdi: 9. ef Faraó skorar á ykkur, ad þid skulid sýna jarteiknir ykkar, þá seg til Arons: tak staf þinn og kasta honum frammi fyrir Faraó, og skal þá stafurinn verda ad høggormi. 10. Þá geingu þeir Móses og Aron inn fyrir Faraó, og gjørdu svo sem Drottinn hafdi bodid þeim; og kastadi Aron staf sínum frammi fyrir Faraó og þjónum hans, og vard stafurinn ad høggormi. 11. Þá kalladi Faraó á vitríngana og tøframennina, og þessir forneskjumenn Egypta gjørdu slíkt hid sama med tøfrum sínum: 12. kastadi hverr þeirra staf sínum, og urdu stafirnir ad høggormum; en stafur Arons gleypti þeirra stafi. 13. Þá forherdtist hjarta Faraós, svo hann skipadist ekki vid ord þeirra, eins og Drottinn hafdi fyrir sagt.

14. Þá sagdi Drottinn til Mósis: hjarta Faraós er ósveigjanlegt; hann vill ei láta fólkid laust. 15. Far þú á morgun á fund Faraós; hann mun gánga ofan ad ánni, skaltu þá gánga til móts vid hann á árbakkanum, og haf í hendi þér staf þann, er vard ad høggormi. 16. Þú skalt segja til hans: Drottinn, Gud Ebreskra manna, hefir sendt mig til þín og hann lætur segja þér: géf mínu fólki orlof, ad þad meigi þjóna mér á eydimørku; en þú hefir ekki hér til viljad vid þad skipast. 17. Svo segir Drottinn: hér af skaltu vid kannast, ad eg em Drottinn: med þeim staf, sem eg hef í minni hendi, lýst eg á vatnid, sem er í ánni, og þá skal þad verda ad blódi; 18. fiskarnir í ánni skulu deya, og vatnid í ánni skal fúlna, svo ad Egyptska menn skal velgja vid ad drekka af því.

19. Drottinn mælti vid Móses: Seg til Arons: tak staf þinn, og rétt þína hønd út yfir vøtn Egyptalands, yfir árnar, fljótin, tjarnirnar og yfir øll støduvøtn, og sknlu þau þá verda ad blódi, og um allt Egyptaland skal blód vera bædi í tré-ílátum og steinkérum. 20. Móses og Aron gjørdu, sem Drottinn hafdi bodid þeim; hann reiddi upp stafinn og laust á vatnid í ánni, ad ásjáanda Faraó og hans þjónum, og allt vatn í ánni vard ad blódi; 21. fiskarnir í ánni dóu, og vatnid í ánni vard svo stækt, ad Egyptar gátu ekki drukkid þad, og blód vard í øllu Egyptalandi. 22. En þared forneskjumenn Egyptskra gjørdu slíkt hid sama med tøfrum sínum, þá hardnadi hjarta Faraós, svo hann gégndi þeim ekki, eins og Drottinn hafdi fyrir sagt; 23. snéri Faraó þá heim til hallarinnar, og lét sér þetta ekki

heldur til hjarta gánga. 24. En allir Egyptsk-
ir menn grófu í kríngum ána eptir neytslu vatni,
því þeir gátu eigi drukkid vatnid úr ánni; 25.
lidu svo sjø samfleyttir dagar, eptir þad ad Drott-
inu hafdi lostid ána.

## 8. Kapítuli.

2ad, 3ja og 4da undur: froskar, mýbit, flugur.

1. Drottinn sagdi vid Móses: gakk fyrir
Faraó, og seg til hans: Svo segir Drottinn:
géf mínu fólki burtfararleyfi, ad þad megi þjóna
mér; 2. en ef þú vilt eigi géfa því orlof, þá
skal eg plága allt þitt land med froskum; 3.
fljótid skal vera krøkt af froskum, þeir skulu
skrída á land og fara inn í høll þína og í
svefnherbergi þitt og upp í rekkju þína, inn í
hús þjóna þinna og upp á fólk þitt, í þína
bakstrofna og deigtrog; 4. og froskarnir skulu
skrída upp á þig og fólk þitt, og upp á alla
þjóna þína. 5. Drottinn mælti vid Móses:
Seg til Arons: rétt út hønd þína, og haldt
staf þínum uppi yfir ám, fljótum og støduvøtn-
um, og lát froska koma yfir Egyptaland. 6.
Og Aron útrétti sína hønd yfir vøtn Egypta-
lands, kom þá upp froskurinn og huldi Egypta-
land. 7. Kunnáttumennirnir gjørdu slíkt hid
sama med tøfrum sínum, og létu froska koma
yfir Egyptaland. 8. Þó kalladi Faraó til Mó-
ses og Arons, og sagdi: bidjid Drottinn fyrir
mér, ad hann láti þessa froska hverfa frá mér
og frá mínu fólki; þá skal eg láta fólkid fara,
ad þad megi fœra Drottni fórnir. 9. Móses
sagdi vid Faraó: þér skal veitast sú virdíng,
ad ákveda, nær eg skuli bidja fyrir þér og fyr-
ir þjónum þínum og fyrir fólki þínu, ad frosk-
arnir hverfi burt frá þér og úr húsum þínum;
þeir skulu hvørgi eptir verda, nema í ánni.
10. Hann svaradi: á morgun. Móses mælti:
svo skal vera, sem þú mælist til! svo þú vitir,
ad enginn er líki vid Drottinn, vorn Gud;
11. froskarnir skulu víkja frá þér og úr húsum
þínum, frá þínum þjónustumønnum og frá
fólki þínu; einúngis í ánni skulu þeir eptir
verda. 12. Sídan gengu þeir Móses og Ar-
on frá Faraó, og Móses ákalladi Gud um
froskana, í þad mund sem hann hafdi tiltekid
vid Faraó. 13. Drottinn gjørdi, sem Móses
beiddist, og dóu froskarnir í húsunum, gørdun-
um og á økrunum; 14. hrúgudu menn þeim
saman í marga hauga, og vard þar af íllur
daun í landinu. 15. En er Faraó sá, ad
hann fékk hvíld, þá forherdti hann sitt hjarta,
og lét ei skipast vid ord þeirra, eins og Drott-
inn hafdi fyrir sagt.

16. Drottinn mælti vid Móses: seg til Ar-
ons: rétt út staf þinn, og slá jardarduptid,
og skal þad þá verda ad mýi yfir allt Egypta-
land. 17. Þeir gjørdu svo; og Aron útrétti
sína hønd, og laust stafnum á jardarduptid, og
vard þad ad mýi á mønnum og fénadi; allt
jardardupt vard ad mýi yfir allt Egyptaland.
18. Kunnáttumennirnir reyndu og til med
fjølkýngi sinni ad koma upp mýinu, en gátu
ekki; lagdist mýid bædi á menn og fénad. 19.
Þá søgdu kunnáttumennirnir vid Faraó: þetta
er Guds fíngur; en hjarta Faraós hardnadi,
svo hann hlýddi ekki þeim Mósés, eins og
Drottinn hafdi fyrir sagt.

20. Þá sagdi Drottinn vid Móses: rís upp
árla á morgun, og far til fundar vid Faraó,
þá hann geingur ofan ad vatninu, og seg til
hans: Svo segir Drottinn: géf fólki mínu
orlof, ad þad meigi þjóna mér; 21. en ef
þú lofar ei fólki mínu í burt, þá skal eg láta
flugur koma yfir þig og þína þjónustumenn og
yfir fólk þitt og í hús þín; og hús Egyptskra
skulu full verda af flugum, og eins landid, sem
þeir búa í. 22. En á þeim degi vil eg und-
antaka landid Gósen, þar sem mitt fólk býr,
svo ad þar skulu engar flugur vera, til þess

þú vitir, ad eg Drottinn, er í landinu; 23. og eg vil setja hlíf milli míns fólks og þíns fólks. Á morgun skal þetta tákn verda. 24. Drottinn gjørdi svo; kom þá mikill fjøldi flugna í hús Faraós og hans þjónustumanna, og í øllu Egyptalandi lagdist landid í eydi af flugunum. 25. Þá kalladi Faraó á Móses og Aron, og sagdi: farid, og færid fórnir ydar Gudi hér innanlands. 26. Móses svaradi: ekki hæfir, ad vér gjørum svo; því vér munum færa Drottni, Gudi vorum, þær fórnir, sem Egyptalandsmønnum þykir óhæfa í; eigum vér ad fórnfæra því, sem Egyptskir álíta óhæfu? mundu þeir þá ekki grýta oss? 27. Vér verdum ad fara þrjár dagleidir út í eydimørkina til ad færa fórnir Drottni, Gudi vorum, eins og hann hefir oss bodid. 28. Faraó mælti: eg vil lofa ydur burt, ad þér færid fórnir Drottni Gudi ydar, á eydimørku; þó med því móti, ad þér farid ei leingra í burt; bidjid fyrir mér! 29. Móses svaradi: sjá! þegar eg kém út frá þér, vil eg bidja til Drottins, og skulu þá flugurnar á morgun víkja frá Faraó og frá þjónustumønnum hans og frá fólki hans; en þá má Faraó ekki optar prettast um ad lofa fólkinu burt til ad færa Drottni fórnir. 30. Þá gékk Móses út frá Faraó, og bad til Drottins; 31. og Drottinn gjørdi, sem Móses bad, og lét flugurnar hverfa frá Faraó og hans þjónustumønnum og fólki hans, svo eingin ein var eptir. 32. En Faraó forherdti þá enn sitt hjarta, og leyfdi ekki fólkinu burt.

## 9. Kapítuli.

5ta, 6ta og 7da undur: fjárfýki, kýli, hagl.

1. Drottinn sagdi vid Móses: gakk fyrir Faraó, og seg til hans: Svo segir Drottinn, Gud Ebreskra manna: lofa fólki mínu ad fara, svo þad meigi þjóna mér; 2. en viljir þú ekki lofa þeim burt, og haldir þú þeim enn leingur, 3. sjá! þá skal hønd Drottins koma yfir þinn kvikfénad, sem er í haganum, yfir hesta og asna og úlfalda, uxa og saudfé, med hardla þúngu faraldri; 4. og Drottinn vill gjøra þann mun á kvikfé Ísraelsmanna og Egyptalandsmanna, ad eingin sképna skal deya af því sem Ísraelsmenn eiga. 5. Og Drottinn tiltók ákvedinn tíma, og sagdi: á morgun mun Drottinn láta þetta fram fara í landinu. 6. Drottinn lét þetta fram fara ad næsta morgni; dó þá allur kvikfénadur Egyptskra, en eingin sképna dó af fénadi Ísraelsmanna. 7. Þá sendi Faraó menn og vard þess vísari, ad ekki hafdi ein sképna farist af fénadi Ísraelsmanna; en þó var Faraó svo þrályndur, ad hann leyfdi ei fólkinu burtu.

8. Drottinn sagdi vid Móses og Aron: takid handfylli ydar af øsku úr ofninum, og skal Móses dreifa henni í lopt upp, ad Faraó ásjáanda; 9. skal askan þá verda ad dupti um allt Egyptaland; en þar af skal koma bólga sem brýst út í kýli, bædi á menn og fénad um allt Egyptaland. 10. Þeir tóku þá øsku af ofninum, og geingu fyrir Faraó; þá dreifdi Móses øskunni í lopt upp, og kom þá á menn og fénad bólga, sem braust út í kýli; 11. og gátu kunnáttumennirnir ekki komid á fund Mósis søkum bólgunnar, því kunnáttumennirnir høfdu bólgu, eins og adrir Egyptalands menn. 12. En Drottinn forherdti hjarta Faraós, svo hann hlýddi þeim ekki, eins og Drottinn hafdi sagt Móses.

13. Þá mælti Drottinn vid Móses: rís upp árla á morgun, gakk fyrir Faraó og seg til hans: Svo segir Drottinn, Gud Ebreskra manna: géf fararleyfi fólki mínu, ad þad meigi þjóna mér; 14. ellegar mun eg í þessu sinni senda allar mínar plágur yfir þig sjálfann, yfir þjóna þína og yfir fólk þitt, svo ad þú vitir, ad einginn er minn líki á øllu jardríki;

15. því áðan, þá eg útrétti mína hønd, og sló þig og fólk þitt með drepsótt, mundir þú hafa orðið afmáður af jørðunni; 16. en þessvegna héldt eg þér upprettum, til þess eg sýndi þér minn mátt og kunngjørði mitt nafn um alla verøld. 17. En ef þú enn stendur í móti mínu fólki, og vilt ei leyfa því burt að fara, 18. þá vil eg á morgun í þetta mund láta rigna mjøg stóru hagli, svo að aldrei skal jafnstórt komið hafa í Egyptalandi, síðan það ríki hófst og allt til þessa dags. 19. Þar fyrir send nú, og tak inn fénað þinn og allt það er þú átt á akri; því hvør skepna, menn og fé, sem úti verður staddt og ekki er í hús innlátið, þegar haglið dettur á, mun deya. 20. Sérhvørr af þjónum Faraós, sem óttaðist orð Drottins, hýsti inni hjú sín og fénað; 21. en þeir sem ekki gáfu gaum að orðum Drottins, létu hjú sín og fénað vera úti á akri.

22. Þá mælti Drottinn við Móses: rétt þína hønd til himins, og þá skal hagl drífa yfir allt Egyptaland, yfir menn og skepnur, og yfir allan jarðargróða í Egyptalandi. 23. Þá lypti Móses staf sínum til himins, og Drottinn lét þegar koma reiðarþrumur og hagl; eldíngunni laust á jørðina, og Drottinn lét hagli rigna yfir Egyptaland; 24. haglið var geysi stórt, og eldstrokurnar fóru innan um haglið; hafði þvílíkt hret ekki komið á øllu Egyptalandi allt í frá landnámstíð. 25. Haglið sló niður allt það sem á akri var í øllu Egyptalandi: haglið laust bæði menn og skepnur og allan jarðargróða, og braut hvørt tré í skógunum; 26. nema í landinu Gósen, hvar Ísraelsmenn bjuggu, þar kom ekkért hagl. 27. Þá sendi Faraó eptir Móses og Aron, og sagði til þeirra: að þessu sinni hefi eg syndgast; Drottinn er réttlátur, en eg og mitt fólk høfum á raungu máli að standa. 28. Biðjið Drottinn, að reiðarþrumunum og haglinu linni, þá vil eg láta yður burt fara, og þér skuluð ekki bíða leingur. 29. Móses sagði til hans: þegar eg fer út af borginni, þá vil eg fórna høndum til Drottins, og mun þá reiðarþrumunum linna, og hagl ekki framar koma, svo að þú vitir, að jørðin er Drottins; 30. og veit eg þó, að þú og þínir þjónar óttast enn ekki Guð Drottinn. 31. Hør og bygg var niður sleigið, því byggið hafði feingið ax og hørinn fræknappa; 32. en hveiti og rúgur var ekki niður sleigið, því þau hofðu seint komið upp. 33. Móses gékk frá Faraó út af borginni, og fórnaði upp høndum til Drottins; linnti þá reiðarþrumunum og haglinu, og regnið streymdi ekki leingur niður á jørðina. 34. En er Faraó sá, að regnið hætti og haglið og þrumurnar, þá syndgaðist hann enn meir, og bæði hann og þjónar hans forherðtu sín hjørtu; og svo mikið var þrályndi Faraós, að hann leyfði ei Ísraelsmønnum að fara, hvað eð Drottinn hafði fyrir sagt fyrir munn Mósis.

## 10. Kapituli.

8da og 9da undur: eingisprettur, myrkur.

1. Drottinn mælti við Móses: gakk inn fyrir Faraó, því eg hefi forherðt hjarta hans, og svo hans þjónustumanna, til þess eg fremji mín tákn á meðal þeirra, 2. og til þess að þú getir sagt þínum børnum og barnabørnum frá því sem eg hefi afrekað í Egyptalandi, og frá þeim táknum, sem eg hefi gjørt þar, svo þér vitið, að eg em Drottinn. 3. Síðan geingu þeir Móses og Aron inn til Faraós, og søgðu til hans: Svo segir Drottinn, Guð Ebreskra manna: hve leingi viltu undan færast að auðmýkja þig fyrir mér? Géf mínu fólki orlof, að það meigi þjóna mér; 4. en viljir þú ekki veita mínu fólki burtfararleyfi, þá skal eg á morgun færa eingisprettur inn í ríki þitt; 5. þær skulu hylja yfirborð landsins, svo að ekki

skal sjást til jardar: þær skulu uppeta þad, sem bjargad vard og enn er eptir ólamid af haglinu, og naga øll ydar tré, sem sprottid hafa í skóg-unum; 6. þær skulu fylla þín hús, og hús allra þjóna þinna og allra Egyptalandsmanna: slíkt skulu hvørki fedur þínir né fedur fedra þinna sjed hafa, frá því þeir fæddust í heiminn og allt til þessa dags. Sídan snéri hann sér vid, og gékk út frá Faraó. 7. Þá søgdu þjónustumenn Faraós til hans: hvad á þessi madur leingi ad verda oss ad meini? géf mønnunum orlof, ad þeir meigi þjóna Drottni, Gudi sínum! eda veitstu enn ekki, ad Egyptaland er í eydi lagt? 8. Þá voru þeir Móses og Aron sóktir aptur, og sem þeir komu fyrir Faraó, sagdi hann til þeirra: farid, og þjónid Drottni, ydrum Gudi! en hvad er þad margt, sem ætlar burtu? 9. Móses svaradi: vér viljum fara med únga og gamla syni vora og dætur, og med þann kvik-fénad, sem vér høfum, smáan og stóran; því vér eigum ad halda Drottni hátíd. 10. Hann sagdi til þeirra: skal þad svo til gánga! Gud hjálpi ydur! skal eg leyfa ydur og børnum ydar ad fara úr landi? sjáid nú til, hvørt þér hafid ekki illt í huga! 11. Þetta skal ekki svo vera; farid þér karlmennirnir, og þjónid Drottni, því þar um haf-id þér bedid. Sídan voru þeir reknir út frá Faraó.

12. Þá mælti Drottinn vid Móses: rétt út hønd þína yfir Egyptaland, svo eingisprettURN-ar þjóti upp og komi yfir landid, og uppeti allan jardargróda og allt þad sem haglid ept-irskildi. 13. Þá útrétti Móses sinn staf yfir Egyptaland, og Drottinn lét austanvind standa upp á landid allan þann dag og alla nóttina, en med morgninum kom austanvindurinn med eingisprett urnar. 14. Eingisprett urnar lidu yfir allt Egyptaland, og komu nidur í øllum álfum landsins; var af eingisprettum svo mikill grúi á yfirbordi jardarinnar, ad aldrei hafdi slíkur verid, og mun ekki hér eptir verda. 15. Þær huldu allan jardveginn svo landid vard svart, og átu af allt gras jardarinnar og allan ávøxt trjánna, sem haglid hafdi eptirskilid, svo ad í øllu Egyptalandi var ekkért lauf eptir á trján-um og ekkért grængresi á akrinum. 16. Þá gjørdi Faraó skyndilega bod eptir Móses og Aron, og sagdi: eg hefi syndgad á móti Drottni, ydrum Gudi, og á móti ydur. 17. Fyrirgéf-id mér mína synd, þó ekki sé nema í þetta sinn, og bidjid Drottinn, ydvarn Gud, ad hann vil-ji ad eins taka þessa landplágu í burt frá mér. 18. Sídan gékk hann út frá Faraó, og bad til Drottins. 19. Þá snéri Drottinn vedrinu í mjøg hvassan vestanvind, sem tók eingisprett urnar og fleygdi þeim í hafid rauda, svo ekki var eptir ein eingispretta nokkurstadar í Egyptalandi. 20. En Drottinn forherdti hjarta Faraós, svo hann leyfdi ekki Ísraelsmønnum burt ad fara.

21. Drottinn sagdi vid Móses: rétt hønd þína til himins, og skal þá koma þreifandi myrkur yfir allt Egyptaland. 22. Þá rétti Móses hønd sína til himins, og vard þá nída myrkur í øllu Egyptalandi í þrjá daga: 23. einginn sá annan, og í þrjá daga stód einginn upp af þeim stad, sem hann var staddur; en bjart var hjá øllum Ísraelsmønnum, þar sem þeir bjuggu. 24. Þá kalladi Faraó Mó-ses til sín, og sagdi: farid, og þjónid Drottni! látid ad eins ydar saudfénad og uxa eptir vera, en úng børn ydar mega fara med ydur. 25. Móses sagdi: þú verdur einnig ad fá oss sláturfórn og brennifórn, svo vér megum fórn-ir færa Drottni, Gudi vorum. 26. Vort kvik-fé skal og fara med oss, og ekki skal ein klauf eptir verda; því þar af munum vér taka þad sem vér þurfum til fórnfæríngar Drottni, Gudi vorum; vér vitum ekki, hvørju vér skulum fórnfæra Drottni, fyrr enn vér komum þáng-ad. 27. En Drottinn forherdti hjarta Faraós, svo hann vildi ekki lofa þeim burt. 28. Og

Faraó sagdi til hans: far frá mér, og varast
ad koma optar fyrir mín augu, því á þeim
deigi sem þú kémur í augsýn mér, skaltu
deya. 29. Móses svaradi: svo skal vera, sem
þú segir; eg skal ekki hér eptir framar koma
fyrir þín augu.

## 11. Kapítuli.

*Móses bodar það tíunda undur.*

1. Drottinn mælti vid Móses: eg vil enn
láta eina plágu koma yfir Faraó og Egypta-
land; þá mun hann leyfa ydur ad fara hédan,
hann mun ei ad eins veita ydur fullkomid orlof,
heldur og reka ydur á burt hédan. 2. Seg
nú í áheyrn fólksins, ad hvørr karlmadur fái
hjá vin sínum, og hvør kvennmadur hjá vin-
konu sinni, silfurkér og gullkér ad láni. 3. Og
Drottinn lét Egyptalandsmenn audsýna fólkinu
þennan greida; líka var Móses einhvørr hinn
mesti madur í Egyptalandi, bædi eptir áliti
Faraós manna og í augum fólksins.

4. Þá sagdi Móses: Svo segir Drottinn:
um midnætti vil eg gánga midt í gégnum E-
gyptaland, 5. og þá skulu allir frumburdir
í Egyptalandi deya, frá Faraós frumgétna syni,
sem situr í sínu hásæti, og til frumgétníngs
þeirrar ambáttar, sem stendur vid kvørnina, og
allur frumburdur fénadarins. 6. Þá skal upp-
koma mikid sorgarkvein í øllu Egyptalandi,
hvørs líki ekki hefir verid, og mun ekki verda.
7. En á medal Ísraelsmanna skal hvørki mønn-
um né sképnum neitt ad grandi verda, svo þér
vitid, hvørn mun Drottinn gjørir á Ísraels-
mønnum og Egyptskum. 8. Þá skulu allir
þessir þjónar þínir koma ofan til mín, falla til
jardar fyrir mér, og segja: far þú á burt, og
allt það fólk sem þér fylgir; og eptir það vil
eg á burtu fara. Sídan gékk hann út frá Faraó
og var mjøg reidur.

9. Drottinn mælti vid Móses: Faraó mun
ekki hlýda ydur, til þess ad mín tákn verdi
margføld í Egyptalandi. 10. Þeir Móses og
Aron gjørdu øll þessi tákn fyrir Faraó; en
Drottinn forherdti hans hjarta, svo hann ekki
vildi leyfa Ísraelsmønnum ad fara úr landi.

## 12. Kapítuli.

*Páskahátíd. Daudi frumburdanna. Ísraelsmenn byrja ferd sína af Egyptalandi.*

1. Drottinn mælti vid Móses og Aron í
Egyptalandi, og sagdi: 2. Þessi mánudur skal
vera ydar høfudmánudur, hann skal vera fyrsti
mánudur ársins hjá ydur. 3. Talid til allrar
alþýdu Ísraelsmanna, og segid: á tíunda degi
þessa mánadar skal hvørr húsbóndi hjá ydur
taka lamb fyrir sitt hús, eitt fyrir hvørt heimi-
li. 4. En ef ekki er svo mannmargt á heimili,
ad upp fái etid lambid, þá taki hann med sér
bónda þann, er næstur honum býr, eptir mann-
tali, svo ad þér skulud ætla svo marga til lambs-
ins, ad þeir fái upp unnid. 5. Það lamb,
sem þér hafid hér til, skal vera annmarkalaust,
hrútlamb og árs gamalt, og má vera hvørt er
vill ásaudarlamb eda hafurkid. 6. Þetta lamb
skulud þér vardveita til hins 14da dags þessa
mánadar, þá skal því slátra á samkomu allrar
alþýdu Ísraelsmanna millum tveggja aptna*);
7. Þá skal taka nokkud af blódinu og rída því
á báda dyrustafi og dyratré þeirra húsa, í hvør-
jum lambid er etid; 8. sømu nótt skal eta kjøt-
id, það skal vera steikt vid eld, og skal eta það
med ósýrdu braudi og beiskum jurtum; 9. ekki
skulud þér eta neitt af því hrátt eda sodid í
vatni, heldur steikt vid eld, høfudid med fótum
og innyflum; 10. ekkért af því skulud þér leifa
til morguns, en hafi nokkud af því leift verid
til morguns, þá skulud þér brenna það í eldi.
11. Þér skulud eta það á þenna hátt: þér skul-

*) Þ. e. milli sólarlags og røkkurs, sjá 5. Mós. 16, 6.

ud vera gyrdtir um ydar lendar, hafa skó á fótum og stafi í höndum; þér skulud eta þad í flýti, því þetta er Drottins páskafórn. 12. Þessa sömu nótt vil eg fara um Egyptaland, og slá alla frumburdi í Egyptalandi, bædi menn og fénad; og refsidóm minn vil eg láta fram koma á öllum godum Egyptalandsmanna; eg er Drottinn. 13. Blódid á þeim húsum, hvar þér erud, skal vera ydur sem teikn; eg mun sjá blódid og gánga fram hjá ydur, og þegar eg slæ Egyptaland, skal eingin skæd plága yfir ydur koma. 14. Þessi dagur skal vera ydur endurminníngar dagur, og þér skulud halda hann helgan, svo sem hátíd Drottins: sem æfinlegt lögmál fyrir ydar eptirkomendur skulud þér hann helgan halda. 15. Í sjö daga skulud þér eta ósýrt braud; þegar á fyrsta degi skulud þér flytja burt allt súrdeig úr húsum ydar: því hvörr sem etur sýrt braud frá þeim fyrsta degi til hins sjöunda, hann skal hafa fyrirgjört lífi sínu. 16. Á þeim fyrsta degi skulud þér halda helga samkomu, og allteins á hinum sjöunda deginum; á þeim dögum skal ekkért verk vinna, nema þad sem allir menn þurfa til matar sér, ad því einu meigid þér starfa. 17. Þér skulud gæta þess, sem hér er sagt um ósýrda braudid, því einmidt á þessum degi leidda eg ydar herskara út af Egyptalandi; skulud þér því halda heilagt þenna dag, og þad skal vera æfinlegt lögmál fyrir ydar eptirkomendur. 18. Þér skulud eta ósýrt braud frá því um kvöldid þann 14da dag hins fyrsta mánadar og til þess um kvöldid þann 21ta dag sama mánadar. 19. Á þeim 7 dögum skal sýrt braud ekki finnast í ydar húsum; því hvörr, sem (þá) etur sýrt braud, sá madur skal hafa fyrirgjört lífi sínu, hvört sem hann er útlendur eda innlendur. 20. Þér skulud ekkért sýrt braud eta; í öllum ydar hýbýlum skulud þér eta ósýrt braud.

21. Móses stefndi saman öllum höfdíngjum Ísraelsmanna, og sagdi til þeirra: útveljid og takid ydur lömb af hjördinni, hvörr handa sínum ættflokki, og slátrid páskalambinu; 22. takid ýsóps-vönd, og drepid honum í blódid, sem er í troginu; og því blódi, sem í er troginu, skulud þér rída á dyratréd og báda dyrustafina, og einginn ydar skal fara út fyrir dyr á húsi sínu, fyrr enn ad morgni, 23. því Drottinn fer fram hjá, til ad slá Egyptalandsmenn; hann mun sjá blódid á dyratrénu og bádum dyrustöfunum, og mun þá Drottinn gánga fram hjá dyrunum, og ekki láta eydíleggjarann (mordengilinn) koma í ydar hús til ad slá ydur. 24. Gjætid þessarar skipunar, og haldt hana fyrir þig og þín börn æfinlega; 25. og þegar þér komid í þad land, sem Drottinn mun gefa ydur, eins og hann hefir lofad, þá skulud þér halda þennan sid; 26. og þegar ydar börn segja til ydar: hvada sidur er þetta, sem þér haldid? 27. Þá skulud þér svara: þetta er páskafórn Drottins, sem gékk fram hjá húsum Ísraelsmanna í Egyptalandi, þá hann sló Egyptalands menn, en hlífdi vorum húsum. Þá hneigdi fólkid sig og laut til jardar; 28. og Ísraelsmenn fóru og gjördu þetta, þeir gjördu eins og Drottinn hafdi bodid þeim Móses og Aroni.

29. Um midnæturskeid sló Drottinn alla frumburdi í Egyptalandi, frá frumgétnum syni Faraós, sem í hásætinu sat, allt til frumgétníngs hins herleidda, sem í myrkvastofu sat, og alla frumburdi fénadarins. 30. Þá reis Faraó upp um nóttina, og allir hans þjónar, og allir Egyptalandsmenn; gjördist þá mikid óp í Egyptalandi, því ekki var þad hús, ad eigi væri lík inni. 31. Hann kalladi til sín þá Móses og Aron um nóttina, og sagdi: takid ydur upp, og farid burt úr minu landi, bædi þér og Ísraelsmenn! farid og þjónid Drottni, eins og þér hafid ætlad ydur! 32. takid ydar kvikfén=

ad, smáan og stóran, eins og þér hafid sagt, farid svo af stad og bidjid mér góds! 33. Egyptskir ráku hardt eptir fólkinu til þess ad koma þeim sem fyrst burt úr landinu, því þeir søgdu: vér munum allir deya. 34. Fólkid tók upp þad deig, sem þad hafdi, ádur enn deigid hafdi sýrst, batt deigtrogin í klædum sínum og báru þau á øxlum sér. 35. Israelsmenn høfdu gjørt, eins og Móses hafdi sagt, fengid til láns hjá Egyptskum silfurkér, gullkér og klædi, 36. og hafdi Drottinn veitt fólkinu þad lán hjá Egyptskum, ad þeir lédu þeim þetta, og gjørdu þeir Egyptska vidskila þar vid.

37. Israelsmenn tóku sig upp frá Raamses og fóru til Súkots, hérumbil 600,000 fótgángandi manna, auk úngbarna; 38. þar ad auki fór med þeim mikill fjøldi af útlendum lýd, og stórar hjardir af kvikfénadi, smáum og stórum. 39. Þeir bøkudu ósýrdar køkur af því deigi, sem þeir høfdu med sér af Egyptalandi, því deigid hafdi ekki súrnad, þared þeir voru reknir svo brátt út af Egyptalandi, ad þeir máttu eingar vidtafir hafa, og høfdu því ekkért búid sér til nestis. 40. Israelsmenn høfdu þá búid í Egyptalandi 430 ár *); 41. og ad lidnum þeim 430 árum geingu allir herskarar Drottins út af Egyptalandi á einum degi. 42. Þetta var vøkunótt Drottins, þá hann útleiddi þá af Egyptalandi, og þessa sømu vøkunótt Drottins halda allir Israelsmenn og þeirra eptirkomendur.

43. Drottinn mælti vid Móses og Aron: þetta eru páskaløgin: einginn útlendur madur má eta páskalambid; 44. sérhvørr þræll, sem er verdi keyptur, má eta þar af, ef þú hefir umskorid hann ádur; 45. einginn útlendskur búandi eda daglaunamadur má eta þar af; 46. menn skulu eta þad í einu húsi: ekkért af kjøtinu meigid þér bera út af húsinu, og bein páskalambsins meigid þér ei brjóta **); 47. øll alþýda Israelsmanna skal þenna sid halda. 48. En ef nokkur útlendíngur býr hjá þér, og vill hann halda Drottni páska, þá skal allt, sem karlkyns er hjá honum, umskérast, og má hann þá koma og halda hátídina, og skal hann þá vera sem adrir innlendir; en einginn óumskorinn skal páskalambsins neyta. 49. Sømu løg skulu vera fyrir þá innlendu, sem fyrir þá útlendínga, sem búa medal ydar. 50. Allir Israelsmenn gjørdu svo, og héldu þad, sem Drottinn hafdi bodid þeim Móses og Aroni. 51. Á þessum sama degi leiddi Drottinn Israelsmenn ásamt med þeirra herskørum út af Egyptalandi.

## 13. Kapítuli.

*Frumburdir helgadir. Gydíngar ferdast til Etams. Skýstólpinn og eldstólpinn.*

1. Því næst taladi Drottinn vid Móses, og sagdi: 2. Þú skalt helga mér alla frumburdi, sem fyrst fædast á medal Israelsmanna, bædi af mønnum og fénadi; þeir skulu tilheyra mér! 3. Móses sagdi til fólksins: verid minnugir þessa dags, á hvørjum þér geingud út af Egyptalandi, úr þrælahúsinu; því med voldugri hendi leiddi Drottinn ydur út þadan. Sýrd braud má eigi eta. 4. Í dag farid þér af stad, í mánudinum Abíb ***); 5. og þegar Drottinn leidir þig inn í land þeirra Kananíta, Hetíta, Amoríta, Hevíta og Jebúsíta, sem hann sór fedrum þínum ad géfa þér, í þad land er flýtur af mjólk og hunángi, þá skaltú halda þessa þjónustgjørd í þessum sama mánudi. 6. Sjø daga skaltú eta ósýrt braud, og á hinum sjøunda degi skal vera hátíd Drottins. 7. Ósýrt braud skal eta í sjø daga, ekkért sýrt braud má sjást hjá þér, og ekki má heldur súrdeig sjást nokkurstadar hjá þér innan þinna landamerkja. 8. Á þeim degi skaltú gjøra syni þín=

*) Post. g. b. 7, 6. **) Jóh. 19, 36. ***) Svarar til sídara hluta Martii. og fyrra hluta Aprilis mánadar.

um grein hér fyrir, og segja: fyrir þá sök ad Drottinn fór þannig med mig, þá eg fór út af Egyptalandi (held eg þessa hátíd); 9. og þetta skal vera þér áþreifanlegt merki og augsýnileg minníng, svo ad lögmál Drottins sé þér æ á vörum, því med voldugri hendi leiddi Drottinn þig út af Egyptalandi; 10. og þessa skipun skaltu halda á ákvednum tíma ár frá ári.

11. Þegar Drottinn leidir þig inn í land Kananíta, eins og hann sór þér og þínum fedrum, og géfur þér landid, 12. þá skaltu eigna Drottni allt þad sem fyrst fædist; og allir frumburdir, sem koma undan þeim fénadi, er þú átt, heyra Drottni til. 13. Alla frumburdi undan ösnum skaltu leysa med lambi; leysir þú ekki, skaltú brjóta þá úr hálslidum; en alla frumburdi manna medal þinna barna, þá skaltu leysa. 14. Og þegar sonur þinn spyr þig á sídan, og segir: hvad á þetta ad þýda? þá svara honum: med voldugri hendi leiddi Drottinn oss út af Egyptalandi, úr þrælahúsinu; 15. því þegar Faraó synjadi þverlega ad láta oss lausa, þá sló Drottinn alla frumburdi í Egyptalandi, bædi frumburdi mannanna og frumburdi fénadarins: þess vegna fórnfæri eg Drottni öllu karlkyns, sem fyrst fædist, en eg leysi frumburdi barna minna; 16. þetta skal vera þér áþreifanlegt merki og augsýnileg minníng þess, ad Drottinn útleiddi oss af Egyptalandi med voldugri hendi.

17. Þegar Faraó hafdi géfid fólkinu burtfararleyfi, þá leiddi Gud þá ekki á leid til Filistalands, þó sú leid væri skémst; því Gud sagdi: vera má ad fólkid ydrist eptir, þegar þad sjer landsherinn, og snúi svo aptur til Egyptalands; 18. heldur snéri Gud fólkinu fram ad hafinu rauda á leid til eydimerkurinnar; höfdu þó Ísraelsmenn farid vígbúnir af Egyptalandi. 19. Móses tók med sér bein Jóseps, því hann hafdi tekid eid *) af Ísraelsmönnum, og sagt: Gud mun vitja ydar, og þá skulud þér færa bein mín hédan burt med ydur.

20. Þeir tóku sig upp frá Súkkot, og settu herbúdir sínar í Etam á takmörkum eydimerkurinnar. 21. Drottinn gékk fyrir þeim á daginn í skýstólpa**) til ad vísa þeim veg, en á næturnar í eldstólpa til ad lýsa þeim, svo þeir gæti ferdast nótt sem dag; 22. og skýstólpinn veik ekki frá fólkinu á daginn, og ekki heldur eldstólpinn á nóttunni.

*) Gen. 50, 25. **) 1 Cor. 10, 1.

## 14. Kapítuli.

*Ísraelsmenn fara yfir hafid rauda. Faraó drukknar.*

1. Drottinn mælti vid Móses, og sagdi: 2. seg til Ísraelsmanna, ad þeir skuli snúa vid, og setja herbúdir sínar fyrir framan Pí-Hakírot, milli Migdols og hafsins, gégnt Baal-Sefon; þar andspænis skulud þér setja herbúdir ydar vid hafid. 3. Því Faraó mun segja um Ísraelsmenn: þeir fara villir vega í landinu, eydimörkin hefir innibyrgt þá. 4. Og eg vil forherda hjarta Faraós, svo hann skal veita þeim eptirför; eg vil sýna almætti mitt á Faraó og öllum hans her, svo ad Egyptalands menn skulu vita ad eg em Drottinn. Þeir gjördu svo. 5. Þegar Egyptalands Konúngur frétti, ad fólkid var flúid, þá vard hugur Faraós og þjóna hans mótsnúinn fólkinu, og þeir sögdu: hví höfum vér gjört þetta, ad vér höfum látid Ísraelsmenn sleppa úr þrældóminum frá oss. 6. Hann lét þá beita fyrir vagn sinn, og tók menn sína med sér. 7. Hann tók 600 útvalda vagna, og hvad annad af vögnum var í Egyptalandi, og setti hermenn sína á hvörn þeirra; 8. því Drottinn forherdti hjarta Faraós, Egyptalands Konúngs, svo ad hann veitti Ísraelsmönnum eptirför, en Ísraelsmenn höfdu út geingid sigri hrósandi. 9. Egyptalands menn

sóktu nú eptir þeim, og allir hestar og vagnar Faraós, riddararnir og allur herinn náðu þeim, þar sem þeir høfðu sett herbúðir sínar við hafið, fyrir framan Pí-Hakírot, gégnt Baal-Sefon. 10. Þá Faraó nálgaðist, hófu Ísraelsmenn upp sín augu, og sáu, að Egyptar sóktu eptir þeim; urðu Ísraelsmenn þá mjøg óttafullir, og ákølluðu Drottinn; 11. og søgðu til Mósis: þurftir þú vegsvegna að taka oss burt til að deya hér á eydimørku, að eingar væru grafir til í Egyptalandi? Hví hefir þú gjørt oss þetta, að fara með oss oss útaf Egyptalandi? 12. Kémur nú ekki fram það sem vér søgðum við þig í Egyptalandi: lát oss vera kyrra og þjóna heldur Egyptskum, því betra er fyrir oss að þjóna Egyptalandsmønnum, en að deya í eydimørkinni. 13. Þá sagði Móses til fólksins: óttist ekki, gángið fram, og horfið á það hjálpræði, sem Drottinn mun í dag láta fram við yður koma; því þessa Egyptsku menn, sem þér sjáið í dag, munuð þér aldrei nokkurn tíma framar augum líta; 14. Drottinn mun berjast fyrir yður, en þér skuluð vera kyrrir.

15. Þá mælti Drottinn við Móses: hví kallar þú á mig? seg Ísraelsmønnum, að þeir haldi á fram; 16. en þú lypt upp staf þínum, og rétt út hønd þína yfir hafið, og skipt því í sundur, og skulu þá Ísraelsmenn þurrum fótum gánga meiga gégnum sjóinn. 17. Sjá! eg forherði hjørtu Egyptalands manna, svo þeir skulu sækja á eptir þeim, og eg vil láta mína dýrð birtast á Faraó og øllum hans liðsafla, á vagnaliði hans og riddaraliði, 18. svo að Egyptar skulu vita, að eg em Drottinn, þá eg hefi látið dýrð mína birtast á Faraó, og á vagnaliði hans og riddaraliði. 19. Og Eingill Guðs, sá er gékk á undan herskørum Ísraelsmanna, tók sig upp og fór á bak við þá, og skýstólpinn, sem stóð fyrir framan þá, hóf sig upp og staðnæmdist að baki þeirra, 20. milli herliðs Egyptskra og herskara Ísraelsmanna, og var skýið myrkt annarsvegar en annarsvegar upplýsti það nóttina; og færðist hvørugur herinn nær øðrum alla þá nótt. 21. En Móses rétti út hønd sína yfir hafið, og Drottinn bægði hafinu frá með hvøssum austanvindi, sem blés alla nóttina; hann gjørði hafið að þurrlendi, og sjórinn skiptist í sundur; 22. og Ísraelsmenn geingu þurrum fótum midt í gégnum hafið, og vøtnin stóðu eins og veggur til hægri og vinstri handar þeim. 23. Egyptalands menn sóktu eptir, og fóru út í sjóinn á eptir þeim, með øllu hestaliði Faraós, og vagnaliðinu og riddaraliðinu. 24. En á morgunvøkunni leit Drottinn yfir her Egyptskra ofan af eldstólpanum og skýstólpanum, og sló felmtri í lið Egyptalands manna, 25. og lét þeirra vagna gánga af hjólunum, svo þeim varð ekið torveldlega. Þá kølluðu Egyptar: eg vil flýa fyrir Ísraelsmønnum, því Drottinn berst með þeim móti Egyptskum. 26. Þá sagði Drottinn við Móses: rétt út þína hønd yfir hafið, og skulu þá vøtnin aptur falla yfir Egyptska, yfir þeirra vagna og riddaralið. 27. Þá útrétti Móses sína hønd yfir hafið, og sjórinn féll að aptur undir morguninn, en Egyptar flýðu beint í móti aðfallinu, og keyrði Drottinn þá midt út í hafið. 28. Sjórinn féll að og huldi vagna og riddara í øllum Faraós her, sem eptir þeim hafði farið út á hafið, svo ekki komst nokkur einn maður af; 29. en Ísraelsmenn geingu þurrum fótum midt í gégnum hafið, og vøtnin stóðu eins og veggur til hægri og vinstri handar þeim. 30. Svo frelsaði Drottinn Ísraels lýð á þeim degi frá hendi Egyptalands manna, og þeir sáu hina Egyptsku menn liggja dauða á sjáfarstrøndinni. 31. Og er Ísraelsmenn sáu þau stórmerki, sem Drottinn hafði framið á Egyptalandsmønn-

um, þá óttadist fólkid Drottinn, og trúdi honum og hans þjóni Móses.

## 15. Kapítuli.

Loffaungur Mósis. Ferd Gydínga til Mara og Elim.

1. Þá saung Móses og Israelsmenn Drottni þenna loffaung, og sögdu:

Eg vil loffýngja Drottni, því hann hefir sig med dásemdum dýrdlegan gjört; hestum og riddurum hefir hann steypt nidur í hafid. 2. Drottinn er mín vegsemd og loffaungur; hann var mitt hjálpræði; hann er minn Gud, hann vil eg prísa; hann er míns födurs Gud, hann vil eg upphefja. 3. Drottinn er strídshetja, Drottinn er hans nafn. 4. Vögnum og herlidi Faraós varpadi hann í hafid; hans útvöldu herstjórar sukku í hafinu rauda. 5. Vötnin huldu þá; þeir sukku nidur í djúpid, eins og steinn. 6. Þín hægri hönd, Drottinn, hefir audsýnt sig dýrdlega í krapti; þín hægri hönd, Drottinn, sundurkremur fjandmanninn. 7. Med mikilleik þinnar hátignar afmáir þú mótstödumenn þína; þú útsendir þína reidi, og hún eydir þeim, eins og hálmleggjum. 8. Vid þinn andardrátt belgdust vötnin upp; rastirnar stódu eins og veggur; bilgjurnar stirdnudu midt í hafinu. 9. Óvinurinn sagdi: eg skal elta þá, eg skal ná þeim, eg skal skipta herfánginu; eg skal skeyta skapi mínu á þeim, eg skal bregda mínu sverdi, og mín hönd skal eydileggja þá. 10. Þú blést med þínum anda: hafid huldi þá, þeir sukku sem blý nidur í sjáfardjúpid. 11. Drottinn, hvörr er sem þú medal gudanna? hvörr er svo dýrdlegur ad heilagleik sem þú, svo dásamlegur til loffaungva, þú sem stórmerkin gjörir? 12. Þú útréttir þína hægri hönd, — jördin gleypir þá, 13. af þinni miskunsemi leidir þú þad fólk, sem þú hefir frelsad, og færir þad med þínum styrk til þíns heilaga bústadar. 14. Þjódirnar heyra þad, og skélfast, og óttinn gagntekur innbúa Filistalands. 15. Þá titra höfudfedurnir í Edomslandi, hræðsla grípur höfdíngjana í Móabslandi, allir innbúar Kanaanslands verda felmtsfullir. 16. Falli þá skélfíng og hræðsla yfir þá! þegi þeir, sem steinn, fyrir mikilleik þíns armleggs, medan þitt fólk, Drottinn, fer leidar sinnar, medan þad fólk, sem þú hefir útvegad þér, er á ferdinni. 17. Leid þá inn, og gródurset þá á þínu erfdafjalli, á þeim stad, sem þú, Drottinn, hefir gjört ad þínum bústad, til þess helgidóms, sem þínar hendur, Drottinn, hafa tilreidt. 18. Drottinn skal ríkja um aldur og ad eylífu! 19. Því hestar Faraós fóru med vögnum og riddurum út í hafid, og Drottinn lét vötn sjáfarins flæda yfir þá, en Israelsmenn geingu á þurru midt í gégnum hafid.

20. Þá tók María spákona, systir Arons, bumbu í hönd sér, og allar kvinnurnar geingu á eptir henni med bumbum og dansleik. 21. Og María saung fyrir þeim: loffýngid Drottni, því hann hefir sig med dásemdum dýrdlegan gjört; hestum og riddurum hefir hann nidur steypt í hafid.

22. Sídan lét Móses Israelsmenn hefja ferd sína frá hafinu rauda, og fóru þeir til eydimerkurinnar Súr; geingu þeir 3 daga um öræfin, og fundu ekkért vatn. 23. Þá komu þeir til Mara; en þeir gátu ekki drukkid vatnid í Mara, af því þad var beiskt, og fyrir þá skuld var sá stadur kalladur Mara. 24. Þá mögladi fólkid móti Móses, og sagdi: hvad eigum vér ad drekka? 25. En hann kalladi til Drottins, og vísadi Drottinn honum þá á tré nokkurt; kastadi hann því í vatnid, og vard vatnid þá sætt. Þar setti Drottinn fólkinu lög og rétt, og þar reyndi hann fólkid, 26. og sagdi: ef þú hlýdir gaumgæfilega raust Drottins Guds þíns, og gjörir þad sem rétt er fyrir honum, lætur hans bodord þér í eyrum

loda og heldur allar hans skipanir, þá vil eg
aungvan þann sjúkdóm á þig leggja, sem eg
lagdi á Egyptaland, því eg em Drottinn, þinn
græðari.
27. Sídan komu þeir til Elíms; þar voru
12 uppsprettur og 7 pálmatré og settu þeir
herbúdir sínar þar vid vatnid.

## 16. Kapítuli.

*Lýnghænsn. Himnabraud.*

1. Sídan fór øll alþýda Ísraelsmanna frá
Elím, og komu til eydimerkurinnar Sín, sem
liggur milli Elíms og Sínaí; þad var á fim=
tánda degi hins annars mánadar, eptir þad þeir
høfdu farid út af Egyptalandi. 2. En øll
alþýda Ísraelsmanna møgladi gégn Móses og
Aroni í eydimørkinni, 3. søgdu Ísraelsmenn
til þeirra: betra hefdi verid, ad vér hefdum
dáid fyrir hønd Drottins í Egyptalandi, þá
vér sátum vid kjøtkatlana, og átum oss sadda
af braudi; því þid hafid farid med oss út á
þessa eydimørk til þess ad láta allan þenna
mannfjølda deya af húngri. 4. Þá mælti
Drottinn vid Móses: sjá! eg vil láta rigna
braudi af himni til ydar, og skal fólkid
fara út, og safna hvørn dag svo miklu sem
þarf þann daginn, svo eg reyni, hvørt þad vill
breyta eptir mínum løgum, eda ekki. 5. En
á hinum 6ta degi skulu þeir svo til haga, ad
þad sem þeir koma þá heim med, skal vera tvø=
faldt vid þad sem þeir annars safna daglega.
6. Þá sagdi Móses og Aron til allra Ísra=
elsmanna: í kvøld skulud þér vidurkénna, ad
Drottinn hefir útleidt ydur af Egyptalandi,
7. og á morgun skulud þér sjá dýrdina Drott=
ins, þar hann hefir heyrt ydar møgl móti
Drottni; því hvad erum vid, ad þér møglid
gégn okkur? 8. Og enn fremur sagdi Móses:
í kvøld géfur Drottinn ydur kjøt ad eta, og
braud til sadníngs á morgun, því Drottinn
hefir heyrt ydar møgl í gégn honum; því hvad
erum vid? Þér møglid ekki gégn okkur, held=
ur gégn Drottni! 9. Og Móses sagdi til Ar=
ons: seg til allrar alþýdu Ísraelsmanna: gáng=
id nær í augsýn Drottins! því hann hefir heyrt
ydar møglanir. 10. Og sem Aron taladi þetta
til allrar alþýdu Ísraelsmanna, þá snéru þeir
sér í móti eydimørkinni, og sjá! dýrdin Drott=
ins birtist í skýinu.
11. Drottinn taladi til Mósis, og sagdi:
12. eg hefi heyrt møglanir Ísraelsmanna;
tala til þeirra, og seg: í kvøld eptir sólset=
ur skulud þér fá kjøt ad eta, og á morg=
un skulud þér fá sadníng ydar af braudi, og
þér skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn, ydar
Gud. 13. Um kvøldid komu lýnghænur og
huldu herbúdirnar; en um morguninn var
døggfall allt umhverfis herbúdirnar. 14.
En þegar upphóf døggina, þá sást þunn skurn
yfir eydimørkina, þvílíkast sem héla á jørdu.
15. Þegar Ísraelsmenn sáu þetta, sagdi hvørr
til annars: þetta er Manna; því þeir vissu
ekki, hvad þad var. Þá sagdi Móses til þeirra:
þetta er þad braud, sem Drottinn hefir géfid yd=
ur til fædslu; 16. en sú er skipun Drottins, ad
þér safnid því, eptir því sem hvørr þarf ad eta,
og takid eitt Gómer á mann, eptir fólksfjølda
þeim, sem hvørr hefir í tjaldi sínu. 17. Ísraels=
menn gjørdu svo, og søfnudu sumir meira, sumir
minna; 18. en þá þad var mælt í Gómer,
hafdi sá ekkért afgángs, sem meira hafdi safn=
ad, og þann skorti ekki, sem minna fékk, heldur
hafdi hvørr safnad, eptir því sem hann þurfti
sér til fædslu. 19. Móses sagdi til þeirra:
einginn má leifa neitt af því til morguns. 20.
En þeir hlýddu ekki Móses, heldur leifdu sum=
ir nokkud af því til morgunmálsins; en þá
kviknudu madkar í því, svo þad skémdist; og
vard Móses þá reidur vid þá. 21. Þeir søfn=
udu því þá hvørn morgun, eptir því sem hvørr

þurfti sér til fædslu; en þegar sólin skein heitt, þá brádnadi þad. 22. En á 6ta deginum söfnudu þeir tvöfaldt meira af braudi, tvö Gómer ístadinn fyrir eitt; komu þá forstjórar lýdsins til Móses, og sögdu honum frá. 23. Hann sagdi þá til þeirra: þetta er þad sem Drottinn sagdi: á morgun er hvíldardagur, heilagur hvíldardagur Drottins; bakid þad sem þér viljid baka, og sjódid þad sem þér viljid sjóda, en þad sem afgeingur, gétid þér lagt fyrir og geymt til morguns. 24. Þeir lögdu þad þá fyrir til næsta morguns, eins og Móses baud, og skémdist þad þá ekki, né madkadi. 25. Þá sagdi Móses: í dag skulud þér eta þad, því í dag er hvíldardagur Drottins; og í dag finnid þér þad ekki á mörkinni. 26. Sex daga skulud þér safna því, en á sjöunda deginum, sem er hvíldardagur, skal þad ekki finnast. 27. Sjöunda daginn geingu nokkrir af fólkinu út til ad safna, en fundu ekkért. 28. Þá sagdi Drottinn vid Móses: hvörsu leingi tregdist þér vid ad vardveita mín bodord og mín lög? 29. Lítid á! vegna þess ad Drottinn hefir géfid ydur hvíldardaginn, þess vegna géfur hann ydur tveggja daga fædslu á þeim sjötta degi; veri því hvörr madur kyrr heima og fari ekki ad heiman á sjöunda deginum! 30. Svo hvíldi fólkid á þeim sjöunda degi.

31. Israelsmenn kölludu þetta braud Manna; þad líktist kóríander-fræi, var hvítt og bragdadi sem hunángskaka. 32. Og Móses sagdi: þetta er þad sem Drottinn hefir bodid: fyllid eitt Gómer þar af, til ad geyma þad til ydar eptirkomenda, svo þeir sjái þad braud, sem eg gaf ydur ad eta í eydimörkinni, þá eg leiddi ydur út af Egyptalandi. 33. Þá sagdi Móses til Arons: tak eitt kér, og lát þar í eitt Gómer, fullt af Manna, og legg þad nidur frammi fyrir Drottni, til ad vardveitast handa ydar eptirkomendum. 34. Aron lagdi þad nidur fyrir framan lögmálstöflurnar, til þess ad þad væri þar geymt, eptir því sem Drottinn hafdi bodid Móses. 35. En Israelsmenn átu Manna í 40 ár, þángad til þeir komu til bygda; þeir átu Manna, þar til þeir komu til landamerkja Kanaanslands. 36. Gómer er tíundi partur af Effa.

## 17. Kapítuli.

Vatn af hellunni. Sigur yfir Amalekítum.

1. Öll alþýda Israelsmanna tók sig upp frá eydimörkinni Sín, fóru þær dagleidir, sem Drottinn baud þeim, og settu herbúdir sínar í Refídim; þar fékk fólkid ekkért vatn ad drekka. 2. Þá deildi fólkid vid Móses, og sagdi: géf oss vatn ad drekka! Móses sagdi til þeirra: hví deilid þér vid mig? hví freistid þér Drottins? 3. En fólkid þyrsti eptir vatni, og mögladi gégn Móses, og sagdi: fyrir hví fórstu med oss upp frá Egyptalandi til þess ad láta oss og börn vor og fénad deya af þorsta? 4. Þá kalladi Móses til Drottins, og sagdi: hvad skal eg gjöra vid þetta fólk? innan skamms munu þeir grýta mig! 5. Drottinn sagdi til Móses: gakk fram fyrir fólkid, og tak med þér nokkura af formönnum Israels lýds, haf í hendi þér staf þann, er þú laust med á ána, og gakk svo af stad; 6. sjá! eg mun standa frammi fyrir þér þar á klettinum í Hóreb, en þú skalt ljósta á klettinn, og mun þá vatn spretta af honum, svo fólkid meigi drekka. Móses gjördi svo í augsýn hinna helstu Israelsmanna. 7. Hann kalladi þenna stad Massa (freistni) og Meríba (þráttan) sökum þráttanar Israelsmanna, og fyrir því ad þeir höfdu freistad Drottins og sagt: hvört mun Drottinn vera á medal vor, edur ekki?

8. Þá komu Amalekítar, og héldu orustu vid Israelsmenn í Refídim. 9. Þá sagdi Móses vid Jósúa: vel oss lid, og far út og berst

vid Amalekíta; en eg mun á morgun standa efst uppi á hædinni, og hafa staf Guds í hendi mér. 10. Jósúa gjørdi, sem Móses hafdi sagt fyrir um bardagann vid Amalekíta; en þeir Móses, Aron og Húr geingu upp á hædina. 11. Þá gjørdist þad, ad alla þá stund er Móses héldt upp hendi sinni, þá høfdu Israelsmenn betur, en þegar er hann lét síga høndina, þá veitti Amalekítum betur. 12. En med því Móses urdu þúngar hendurnar, þá tóku þeir stein og létu undir hann, og settist hann þar á; en þeir Aron og Húr studdu hendur hans, sinn á hvørja hlid; og héldust þannig hendur hans stødugt uppréttar allt þar til komid var sólarlag; 13. en Jósúa feldi Amalekíta og menn þeirra med sverdseggjum. 14. Þá sagdi Drottinn vid Móses: rita þú þetta á bókina til minnis, og minn Jósúa á, ad eg vilji sannarlega afmá minníngu Amalekíta af jardríki. 15. Þar reisti Móses altari, og kalladi þad „Drottinn, mitt hermerki", 16. og hann sagdi: hermerki Drottins er á lopti, Drottinn vill halda ófrid vid Amalekíta um aldur og æfi.

## 18. Kapítuli.

Jetró leggur Mósi ráð.

1. En er Jetró, kénnimadur í Midíanslandi, tengdafadir Mósis, heyrdi allt þad sem Gud hafdi gjørt Móses og sínu fólki Israelsmønnum, ad Drottinn hafdi leidt Israelsmenn út af Egyptalandi, 2. þá tók Jetró, tengdafadir Mósis, Sippóru med sér, konu Mósis, hvørja hann hafdi aptur sendt, 3. og tvo sonu hennar: hét annar Gersom, af því Móses hafdi sagt: eg hefi verid géstur í ókunnu landi; 4. hinn hét Elíeser, því hann hafdi sagt: Gud fødur míns var mín hjálp, og hann frelsadi mig frá sverdi Faraós. 5. Nú sem Jetró tengdafadir Mósis, kom med sonu hans og konu til hans í eydimørkina, þar sem hann hafdi sett herbúdir sínar hjá Guds fjalli, 6. þá lét hann segja Móses: eg Jetró tengdafadir þinn er kominn til þín, og kona þín og bádir synir hennar med henni. 7. Þá gékk Móses út á móti honum, laut honum og kysti hann; og þegar þeir høfdu heilsast, þá geingu þeir inn í tjaldid. 8. Móses sagdi tengdafødur sínum frá øllu því sem Drottinn hafdi gjørt Faraó og Egyptalandsmønnum fyrir sakir Israelsmanna, svo og frá øllum þeim þrautum, sem þeim høfdu mætt á leidinni, og hvørsu Drottinn hafdi frelsad þá. 9. Jetró gladdist yfir øllu því góda, sem Drottinn hafdi gjørt Israelsmønnum, hvørja hann hafdi frelsad af hendi Egyptalandsmanna. 10. Og Jetró sagdi: lofadur veri Drottinn, sem frelsadi ydur af hendi Egyptalandsmanna og af hendi Faraós, sem frelsadi fólkid undan ofríki Egyptalandsmanna! 11. Nú veit eg, ad Drottinn er meiri enn allir adrir gudir; því þad ofdramb, sem Egyptar sýndu, kom í koll sjálfum þeim. 12. Þá tók Jetró, tengdafadir Mósis, brennifórn og sláturfórnir, Gudi til fórnar; kom þá Aron og helstu menn af Israels lýd til ad halda fórnarveitslu, ásamt med tengdafødur Mósis, til þakklætis vid Gud.

13. Daginn eptir settist Móses til ad dæma medal fólksins, og stód fólkid frammi fyrir Móses frá morgni til kvølds. 14. En er tengdafadir hans sá allt þad sem hann gjørdi vid fólkid, þá sagdi hann: hvad á þetta ad þýda, sem þú gjørir vid fólkid? hvørsvegna situr þú einn saman, en allt fólkid stendur frammi fyrir þér frá morgni til kvølds. 15. Móses svaradi tengdafødur sínum: fólkid kémur til mín, þegar þad vill leita Guds atkvæda; 16. því þegar er nokkurt mál gjørist þeirra á milli, þá fara þeir á fund minn, til þess ad eg dæmi þær sakir, er til falla milli manna, og kunngjøri þeim løg Guds og bodord hans. 17. Tengdafadir

Mósis sagdi til hans: þessi adferd hentar ekki; 18. bædi þreytist þú, og fólkid, sem hjá þér er; þetta starf er þér um megn, svo þú fær því ekki afkastad einn saman. 19. Hlýd nú mínum tillögum, eg vil leggja þér rád, og mun Gud vera med þér: þú skalt gánga fram fyrir Gud í nafni fólksins, og fram bera málefni þess fyrir Gud; 20. þú skalt skýra fyrir þeim lögin og bodordin, og kénna þeim þann veg, sem þeir skulu gánga, og þau verk, sem þeir skulu gjöra; 21. þú skalt velja medal fólksins dugandi menn, þá er óttast Gud, rádvanda menn og ósérplægna, og setja þá sem formenn lýdsins, suma yfir 1000 menn, suma yfir 100, suma yfir 50, og suma yfir 10; 22. þeir skulu dæma milli manna á öllum tímum, en öll hin stærri mál skulu þeir láta koma fyrir þig, en sjálfir skulu þeir dæma í öllum smærri málum, skaltu svo gjöra þér hægra fyrir, og þeir skulu létta undir med þér. 23. Ef þú gjörir þetta og sé þad Guds vilji, þá muntu fá því afkastad, og þá mun og allur þessi lýdur med fridi komast til átthaga sinna. 24. Móses hlýddi tillögum tengdafödur síns, og gjördi eins og hann hafdi gefid rád til. 25. Móses valdi dugandi menn af öllum Israels lýd, og setti þá til höfdíngja yfir fólkid, suma sem formenn yfir 1000 mönnum, suma yfir 100, suma yfir 50, suma yfir 10, 26. til þess þeir skyldu dæma medal manna á öllum tímum; vandamálum öllum skyldu þeir skjóta til Mósis, en dæma sjálfir í hinum minni málum. 27. Gaf Móses þá orlof tengdaföður sínum, og fór hann aptur heim í sitt land.

## 19. Kapítuli.

Gydíngar koma til Sínaí. Undirbúníngur undir löggjöfina.

1. Á fyrsta degi hins þridja mánadar, eptir þad ad Israelsmenn voru út geingnir af Egyptalandi, komu þeir í eydimörkina Sínaí. 2. Þeir tóku sig upp frá Refídim og komu í eydimörkina Sínaí, og settu búdir sínar í eydimörkinni, og tjöldudu Israelsmenn þar gegnt fjallinu. 3. Móses gékk upp til Guds, og kalladi Drottinn til hans af fjallinu, og sagdi: svo skaltu segja Jakobs nidjum, og kunngjöra Israelsmönnum: 4. þér hafid sjálfir sjed, hvad eg hefi gjört Egyptalandsmönnum, og hvörsu eg hefi borid ydur á arnarvængjum og flutt ydur til mín. 5. Nú ef þér hlýdid minni röddu grandgjæfilega, og haldid minn sáttmála, þá skulud þér vera mín eiginleg eign um fram allar þjódir, því öll jördin er mín; 6. þér skulud vera mitt kénnimannlegt ríki og mitt heilagt fólk. Þessi ord skaltu tala til Israelsmanna. 7. Móses fór og stefndi saman formönnum lýdsins, og flutti þeim öll þau ord, er Drottinn hafdi bodid honum. 8. Þá svaradi allur lýdurinn einum munni, og sagdi: vér viljum gjöra allt þad, sem Drottinn býdur; og Móses flutti Drottni aptur ord fólksins. 9. Þá sagdi Drottinn til Mósis: sjá! eg vil koma til þín í dymmu skýi, svo ad fólkid heyri þau ord, er eg tala vid þig, og trúi þér sídan æfinlega. Móses sagdi Drottni, hvörju fólkid svaradi hér til. 10. Þá mælti Drottinn vid Móses: far til fólksins, og helga þad í dag og á morgun, og lát þá þvo klædi sín; 11. veri þeir búnir á þridja degi, því á þridja degi mun Drottinn ofan stíga á Sínaí fjall í augsýn alls lýdsins. 12. Þú skalt marka fólkinu svid umhverfis, og segja: varist ad gánga upp á fjallid eda snerta fjallsræturnar; hvörr sem snertir fjallid, honum skal daudinn vís; 13. einginn má snerta þad manns hendi: hvörr sem þad gjörir, skal verda grýttur eda skotinn; hvört þad er heldur madur eda kvikindi, þá skal þad ekki lifa; en þegar lúdurinn kvedur vid, þá skulu þeir stíga upp á fjallid. 14. Þá gékk Móses ofan af

fjallinu til fólksins, og helgadi fólkid, og þeir
þvodu sín klædi. 15. Hann sagdi til lýdsins:
verid búnir á þridja degi, og komid ekki nærri
nokkurri konu. 16. Þridja dags morgun
geingu reidarþrumur og eldíngar, þykt ský var
á fjallinu og mjøg sterkur lúdurþytur, svo allt
fólkid skélfdist, sem var í herbúdunum. 17. Þá
leiddi Móses fólkid út af herbúdunum til móts
vid Gud, og tóku menn sér stødu fyrir nedan
fjallid. 18. Allt Sínaí fjall rauk, fyrir því
ad Drottinn steig ofan á þad í eldinum; mokk-
urinn stód upp af því, eins og reykur af ofni,
og allt fjallid skalf mjøg, 19. og lúdurþytur-
inn vard æ sterkari og sterkari; Móses taladi og
Gud svaradi honum í reidarþrumunni. 20. Og
Drottinn steig ofan á fjallid Sínaí á efsta fjalls-
tindinn, og kalladi Móses upp til sín á fjallid,
og gékk Móses upp. 21. Þá sagdi Drottinn
vid Móses: stíg ofan, og minn fólkid á, ad
þad ekki brjótist upp híngad til Drottins fyrir
forvitni sakir, svo eigi falli fjøldi af þeim. 22.
Einnig kénnimennirnir, sem nálægja síg Drottni,
skulu helga síg, svo ad Drottinn eydileggi þá
ekki. 23. Móses sagdi til Drottins: fólkid gét-
ur ekki stígid upp á Sínaí fjall, því þú hefir
vottad fyrir oss og sagt: settu vebønd umhverf-
is fjallid, og helga þad. 24. Drottinn sagdi
til hans: far nú og stíg ofan, en þid Aron skul-
ud fara upp híngad aptur; en kénnimennirnir
og fólkid má ekki brjótast upp híngad til Drott-
ins, svo hann ekki eydileggi þá. 25. Móses
gékk ofan til fólksins, og sagdi því þetta.

## 20. Kapítuli.

Þau 10 Lagabodord. Bodord um altarisgjørd.

1. Drottinn taladi øll þessi ord, og sagdi:
2. eg er Drottinn, þinn Gud, sem útleiddi þig
af Egyptalandi, út af þrælsdómshúsinu. 3. Þú
mátt ekki dýrka hjágudi undir eins og mig; 4.
þú mátt aungvar líkneskjur gjøra þér, eda nokk-
urar myndir eptir því sem er á himnum uppi,
edur á jørdu nidri, edur í vøtnum, edur undir
jørdunni: 5. þú mátt ekki tilbidja þær, og ekki
dýrka þær, því eg Drottinn, þinn Gud, er vand-
lætissamur Gud, sem hegni misgjørdir fedranna,
á børnunum í þridja og fjórda lid, þeim sem mig
hata, 6. en audsýni miskunsemi í þúsund lidu,
þeim, sem elska mig og vardveita mín bodord.
7. Þú skalt ekki leggja nafn Drottins Guds
þíns vid hégóma, því Drottinn mun ekki láta
þann óhegndan, sem brúkar hans nafn gálaus-
lega. 8. Minnstu ad halda hvíldardaginn hei-
lagan! 9. Sex daga skaltu erfida, og vinna alla
vinnu þína; 10. en sjøundi dagurinn er hvíld-
ardagur Drottins Guds þíns, þá skalt þú ekk-
ért verk vinna, og ekki sonur þinn eda dóttir,
þræll eda ambátt, eda sképnur þínar, eda nokk-
ur útlendíngur, sem er innan borgarhlida þinna:
11. því á 6 døgum gjørdi Drottinn himin og
jørd og haf, og allt sem í þeim er, og hann
hvíldist á hinum sjøunda degi; þess vegna bless-
adi Drottinn hvíldardaginn, og helgadi hann.
12. Heidra fødur þinn og módur þína, svo þú
meigir leingi lifa í því landi, sem Drottinn Gud
þinn géfur þér. 13. Þú skalt ekki mann vega.
14. Þú skalt ekki hórdóm drýgja. 15. Þú
skalt ekki stela. 16. Þú skalt ekki bera ljúgvætti
á móti þínum náúnga. 17. Þú skalt ekki girn-
ast hús náúnga þíns. Þú skalt ekki girnast
kvinnu náúnga þíns, ekki hans þræl eda hans
ambátt, ekki hans uxa eda asna, eda nokkud af
því sem náúnga þínum tilheyrir.

18. Allt fólkid sá reidarþrumurnar og eld-
glossana og lúdurþytinn og fjallid rjúkanda; og
er fólkid sá þetta, hørfadi þad til baka og stód
lángt frá. 19. Þeir søgdu þá til Móses: tala
þú vid oss, og vér skulum hlýda; en lát Gud
ekki tala vid oss, svo vér ekki deyum. 20. Mó-
ses sagdi til fólksins: óttist ekki! því Gud er
kominn til þess ad reyna ydur, svo ad hans ótti

sé ydur fyrir augum, til þess þér syndgid ekki. 21. Folkid stód þá lángt frá, en Móses gékk inn í dymmuna, þar sem Gud var.

22. Drottinn mælti vid Móses: svo skaltu segja Ísraelsmønnum: þér hafid sjed, ad eg hefi talad til ydar af himnum. 23. Þér skulud ekkért taka til jafns vid mig; þér skulud aungva gudi tilbúa ydur af silfri eda gulli. 24. Þú skalt byggja mér altari af torfi, og fórnfæra þar á þinni brennifórn og þakkarfórn, kvikfénadi þínum, smáum og stórum; allstadar, þar sem eg læt prísa mitt nafn, vil eg koma til þín og blessa þig. 25. En ef þú vilt reisa mér altari af steinum, þá máttu ekki hlada þad af høggnu grjóti; því berir þú meitilinn (kløppuna) á þad, þá vanhelgar þú þad. 26. Þú mátt ekki um palla gánga upp ad altari mínu, svo þín blygdun opinberist þar ekki.

## 21. Kapítuli.

*Løg um þræla, víg, meidslur og fleira.*

1. Þetta er sá lagaréttur, sem þú skalt setja þeim: 2. Ef þú kaupir Ebreskan þræl, þá skal hann þjóna þér 6 ár, en á 7da ári skal hann fara frjáls ókeypis. 3. Ef hann kom einhleypur til þín, þá skal hann og einhleypur fara frá þér; en hafi hann kvongadur verid, þá skal kona hans fara frjáls med honum. 4. Ef húsbóndi hans hefir feingid honum konu, og hafi hún fædt honum sonu eda dætur, þá skal konan og børnin heyra húsbónda sínum til, en hann skal fara frjáls einhleypur. 5. En ef þrællinn segir: eg elska húsbónda minn, konu mína og børn mín, og vil eg því ekki vera frjáls; 6. þá skal húsbóndi hans færa hann til Guds (fyrir Guds dómstól*), og leida hann ad dyrunum eda ad dyrustafnum, og skal húsbóndi hans stínga al í gégnum eyra hans, og skal hann sídan vera þræll æfilángt. 7. Ef madur selur dóttur sína til ambáttar, þá skal hún ekki fara frjáls eins og þrælar. 8. Hafi húsbóndi hennar fastnad sér hana og þóknast hún honum ekki sídan, þá gefi hann kost á ad hún sé keypt í frelsi; ekki skal hann hafa vald til ad selja hana útlendskum mønnum, fyrst hann brá vid hana eiginordi. 9. En ef hann fastnar hana syni sínum, þá gjøri hann vid hana sem dætur sínar; 10. nú tekur hann sér adra konu, þá skal hann ekki mínka af vid hana í kosti eda klædnadi eda sambúd; 11. veiti hann henni ekki þetta þrennt, þá fari hún frjáls ókeypis og gjaldi ekki fé fyrir sig.

12. Hvørr sem lýstur mann, svo hann fær bana af, láti líf sitt; 13. en ef hann hefur ekki setid um líf hans, og hafi Gud látid hann falla í hans hendur, þá skal eg ákveda gridastad handa honum. 14. En verdi nokkurr svo djarfur, ad hann drepi náúnga sinn med svikum, þá skaltu jafnvel taka hann frá altari mínu, svo hann verdi líflátinn. 15. Hvørr sem slær fødur eda módur, láti líf sitt. 16. Hvørr sem stelur manni og selur hann, eda hann finnst undir hans vørdslu, hann láti líf sitt. 17. Hvørr sem bølvar fødur eda módur, láti líf sitt. 18. Ef menn deila, og lýstur annar annan steini eda knefa, og fær hinn ekki bana af, heldur leggst í rekkju; 19. nú ef hann kémst á fætur og geingur úti vid staf, þá sé sá sikn saka, er laust, og bæti honum ad eins verkafall og kosti grædslu hans. 20. Ef madur lýstur þræl sinn eda ambátt med barefli, svo ad hann lætst undir hendi hans, þá skal hann taka refsíngu fyrir; 21. en ef hann er med lífi einn dag eda tvo, þá skal hann aungri refsíngu sæta; því þrællinn er eign hans. 22. Ef menn fljúgast á, og slær einhvørr ólétta konu, svo henni leysist høfn, og verdur ekki annad mein af, þá haldi hann bótum uppi, slíkum sem bóndi konunnar

*) 5 Mós. 19, 17.

kvedur á hann, og greidi bæturnar í vidurvist gjørdarmanna. 23. En ef skadi hlýtst af, þá skaltú láta líf fyrir líf, 24. auga fyrir auga, tønn fyrir tønn, hønd fyrir hønd, fót fyrir fót, 25. taka bruna fyrir bruna, sár fyrir sár, kúlu fyrir kúlu. 26. Ef madur slær þræl þinn eda ambátt á auga, svo ad augad verdur ónýtt, þá gefi honum frelsi sitt fyrir augad; 27. og ef hann lýstur tønn úr þræli sínum eda ambátt, þá láti hann þau fara frjáls fyrir tønn sína.

28. Ef uxi stángar mann edur kvinnu til bana, þá skal grýta uxann í hel og ekki neyta slátursins, og er eigandi uxans þá sýkn saka. 29. En hafi uxinn verid mannýgur ádur, og eigandi verid látinn vita þad med vitnum, og geymir hann ekki uxans ad heldur, svo hann verdur manni eda konu ad bana, þá skal grýta uxann, en eigandi láti líf sitt; 30. en gjørist honum ad bæta med fé, þá leysi hann líf sitt med svo miklum bótum, sem ákvednar verda; 31. hvørt sem uxinn stángar son eda dóttur til bana, skal sama víti vid liggja. 32. En ef uxinn stángar þræl manns edur ambátt, þá skal eigandi gjalda húsbónda þeirra 30 sikla silfurs, og skal grýta uxann. 33. Ef madur opnar gryfju eda grefur grøf, og byrgir ei aptur, og fellur þar í uxi eda asni, 34. þá skal sá, er gryfjuna gjørdi, gjalda fébætur, og færa eigandanum, en hafa sjálfur hid dauda. 35. Ef uxi manns stángar uxa annars manns til bana, þá skulu þeir selja þann uxann, sem lifir, og skipta med sér bædi silfrinu og eins hinum dauda uxanum; 36. en ef þad var kunnugt, ad uxinn var mannýgur ádur, og eigandi gjætir hans ekki ad heldur, þá bæti hann uxa fyrir uxa, en hafi sjálfur þann dauda.

## 22. Kapítuli.

Løg um þjófnad, spillvirki, lán o. s. fr.

1. Ef madur stelur nauti eda saud, og slátrar eda selur, þá gjaldi hann aptur 5 uxa fyrir einn, og 4 saudi fyrir einn saud. 2. Ef þjófur verdur gripinn í innbroti og lostinn til bana, þá er eingi sókn fyrir þad víg; 3. en ef sól er á lopt kominn, þá skal sækja vígsmálid; (því) þjófur skal bæta fullum bótum, og ef hann á ekki til, skal selja hann í bætur fyrir þad stolna. 4. Ef þad þjófstolna finnst hjá honum, hvørt heldur þad er uxi, asni eda saudur, og sé þad lifandi, þá skal hann gjalda tvøfaldt aptur. 5. Ef madur beitir akur eda víngard annars manns, svo ad hann hleypir fé sínu og lætur gánga í akri hans, þá skal hann bæta med því sem best er á hans akri eda í hans víngardi. 6. Ef eldur kviknar og kémst í þyrna, og brennur kérfaskrúf, kornstángir eda akur, bæti sá fullum bótum, er eld kveikti.

7. Ef madur selur ødrum manni silfur eda nokkura gripi til vardveitslu, og verdur því stolid úr húsi hans, finnist þjófurinn, þá skal hann tvígjalda aptur; 8. en finnist þjófur ekki, þá skal leida húseigandann fram fyrir Gud, og vinni hann eid, ad hann ekki lagdi hendur á eign náúnga síns. 9. Hvervetna þar er mál verdur um misverka á uxum edur øsnum edur saudum, edur klædnadi, og um allt þad er annar missir, og segir, ad þad er þetta sem hann saknar, þá skal mál þeirra beggja koma fyrir Guds dómstól, og hvørn sem dómendur dæma sakfallinn, sá skal tvígjalda hinum.

10. Ef madur selur ødrum manni asna edur naut edur saud edur nokkurt kvikfé til vardveitslu, og deyr þad, eda lestist, eda er tekid, svo einginn sjer: 11. þá skal til koma eidur vid Drottinn þeirra í millum, „ad hann ekki lagdi hønd á eign náúnga síns", og skal eignarmadur þann eid gildan taka, en hinn bæti aungvu; 12. en ef því hefir verid stolid frá honum, þá gjaldi hann bætur eignarmanni; 13. ef þad er dýrbitid, þá skal hann koma

með það til sanninda merkis: dýrbitið fé skal maður (hann) ekki bæta.

14. Ef maður tekur fénað á leigu af öðrum manni, og það lemst eða deyr: sé eignarmaður ekki viðstaddur, þá bæti hinn fullum bótum; 15. en sé eignarmaður við, bæti aungvu, ef það er daglaunamaður, þá komi það upp í daglaun hans.

16. Ef maður glepur mey, sem ekki er føstnuð manni, og liggur með henni, þá skal hann þá mey mundi kaupa og taka sér til eiginkonu; 17. en ef faðir hennar vill eigi gipta honum hana, þá skal hann gjalda svo mikið silfur, sem meya mundi svarar.

18. Ekki skaltu láta galdrakonu lifa. 19. Hvør sem hefir samlag við fénað, láti líf sitt.

20. Hvørr sem fórnfærir nokkrum guði, utan Drottni einum, sá skal fyrirdæmast.

21. Þú skalt ekki kúga eða ágáng veita útlendum manni, því þér vóruð sjálfir útlendíngar í Egyptalandi. 22. Þér skuluð ekki leggjast á ekkjur eða munaðarleysíngja. 23. Ef þú þreyngir þeim, og þau kalla á mig sér til hjálpar, þá skal eg heyra þeirra neyðarkvein, 24. þá skal mín reiði brenna, og eg skal slá yður í hel með sverði, svo yðar konur verði ekkjur, og yðar børn føðurlaus.

25. Ef þú lánar penínga fólki mínu, þeim fátæka, sem hjá þér er, þá skaltú ekki vera við hann eins og okurkarl; þér skuluð ekki taka leigu af honum. 26. Ef þú tekur yfirhøfn náúnga þíns að veði, þá skila þú honum henni aptur, áður sól setst; 27. því hún er það eina, sem hann hefir til að hylja sig með: hún er það klæði, sem hann er í og liggur á; kalli hann til mín, skal eg bænheyra hann: því eg er miskunsamur.

28. Þú skalt ekki hallmæla dómvaldi Guðs, og ekki lasta høfðíngja þíns fólks.

29. Lát ei undandragast að frambera frumgróða af því korni og þeim ávaxtarvøkva, sem þú átt. Þú skalt gefa mér þinn frumgetna son; 30. sømuleiðis frumburði þinna nauta og sauða; sjø daga skal frumburðurinn vera hjá móður sinni, en þann áttunda dag skaltu færa mér hann. 31. Þér skuluð vera mitt heilagt fólk. Það kjøt, sem rifið er af dýrum úti á víða vángi, skuluð þér ei eta, heldur kasta því fyrir hunda.

## 23. Kapítuli.

*Lög um réttlæti, stórhátíðir; fyrirheit um Kanaansland.*

1. Þú skalt ekki fara með lýgi kvittu; þú skalt ekki leggja lag þitt við vondan mann til að gjørast ljúgvottur. 2. Þú skalt ekki fylgja fjøldanum í því að gjøra það sem illt er; ef þú átt svør að veita í søk nokkurri, þá skaltu ekki á eitt leggjast með mørgnum til þess að halla réttu máli; 3. ekki skaltu vera hliðdrægur manni, þó fátækur sé, í málsókn hans.

4. Ef þú hittir uxa óvinar þíns, eða asna hans, sem viltur fer, þá fær þú hann þegar aptur til hans. 5. Sjáir þú asna óvildarmanns þíns liggja ørmagna undir byrði sinni, þá skaltu ekki láta óvin þinn vera einan um grip sinn, heldur skaltú fara til með honum, og ekki fyrr frá gripnum gánga, en sjálfur eigandinn. 6. Þú skalt ekki halla réttarfari fátæks manns í søk hans. 7. Varastu að beita lognum søkum, og slá ekki í hel saklausan mann og réttlátan; því eg vil ekki, að sá hafi sitt mál, sem á raungu hefir að standa. 8. Eigi skaltu mútu þiggja, því mútan glepur sjónir fyrir þeim skygnu, og umsnýr málefnum hinna ráðvøndu. 9. Þú skalt ekki kúga útlendan mann; þér vitið sjálfir, hvørninn útlendum manni er innan brjósts, því þér hafið verið útlendíngar á Egyptalandi.

10. Sex ár skaltu sá jørð þína, og safna

ávøxtum hennar; 11. en sjøunda árid skaltu
láta hana liggja og hvíla sig, svo ad þeir fá-
tæku medal þíns fólks meigi eta þar af; þad
sem þeir leifa, meiga skógardýrin eta; eins
skaltu gjøra vid þinn víngard og vidsmjørsgard.
12. Sex daga skaltu verk þitt vinna, en
sjøunda daginn skaltu halda heilagt, svo ad þinn
uxi og þinn asni géti hvílt sig, og sonur þinnar
ambáttar og hinn útlendi géti endurnært sig.
13. Allt hvad eg hefi sagt ydur, þad skul-
ud þér halda. Nøfn annara guda meigid þér ekki
hafa í huga, og ekki láta heyra þau af ydar munni.
14. Þrisvar á ári skaltu mér hátíd halda.
15. Þú skalt halda hátíd enna ósýrdu brauda:
sjø daga skaltu eta ósýrt braud, eins og eg
hefi bodid þér, á ákvednum tíma í mánudin-
um Abíb, því í þeim mánudi fórstú út af E-
gyptalandi; þér skulud ekki med tómar hendur
koma fram fyrir mitt auglit. 16. Þar næst
frumskéru hátídina, þá þú hefir uppskorid frum-
gróda þess sædis, er þú sádir í akurinn; og
uppskéru hátídina vid árslokin, þá þú hefir al-
hirdt afla þinn af akrinum. 17. Þrem sinn-
um á ári skal allt þitt karlkyn birtast frammi
fyrir Drottni almáttugum. 18. Þú skalt ekki
fórnfæra mitt fórnarblód med súrdeigi, og feitin
af minni hátídafórn má ekki liggja náttlángt
til morguns. 19. Þad besta af frumgróda
jardar þinnar skaltu færa til húss Drottins Guds
þíns. Þú skalt ekki sjóda kidid í mjólk mód-
ur sinnar.
20. Sjá! eg sendi eingil á undan þér, til ad
vardveita þig á ferdinni, og leida þig til þess
stadar, sem eg hefi tilreidt. 21. Haf gát á
þér í hans augsýn, hlýd hans røddu, og set þig
ekki upp í móti honum, því hann mun ekki fyr-
irgéfa ydar yfirtrodslur, þar ed mitt nafn býr í
honum. 22. En ef þú hlýdir hans raustu ræki-
lega, og gjørir allt þad sem eg segi þér, þá
skal eg vera óvinur óvina þinna, og mótstødu
veita þínum mótstødumønnum. 23. Því minn
eingill skal gánga á undan þér, og leida þig inn
í land þeirra Amoríta, Hetíta, Feresíta, Kana-
níta, Hevíta og Jebúsíta, og eg skal eydileggja
þá. 24. Þú mátt ekki tilbidja þeirra gudi, og
ekki dýrka þá, og ekki breyta eptir þeirra at-
hæfi, heldur skaltu gjøreyda og med øllu sund-
urbrjóta skurdgod þeirra. 25. Þér skulud dýrka
Drottinn, ydvarn Gud, og hann mun blessa
þitt braud og þitt vatn, og eg skal láta allt
sóttarfar víkja frá þér. 26. Eingin vanbirja
og eingin óbirja skal finnast í landi þínu, og
eg skal láta þig verda lánglífan. 27. Eg skal
senda mína ógn á undan þér, og gjøra felms-
fullar allar þær þjódir, sem þú kémur til, og
eg skal láta alla þína óvini snúa bøkum vid þér.
28. Eg skal senda geitúnga á undan þér, og
þeir skulu í burtu støkkva Hevítum, Kananít-
um og Hetítum frá þér. 29. Þó vil eg ekki
støkkva þeim burt fyrir þér á einu og sama
ári, svo landid leggist ekki í eydi, og villidýrin
ekki fjølgi þér til meins; 30. heldur vil eg
støkkva þeim burt fyrir þér smámsaman, þar
til þú fjølgar og eignast landid. 31. Eg vil
setja landamerki þín frá hafinu rauda og til
Filista-hafs, frá eydimørkinni og til Fljótsins;
því eg vil selja innbyggjendur landsins á vald
þitt, og þú skalt støkkva þeim burt undan þér.
32. Þú mátt ekkért sáttmál gjøra vid þá eda
þeirra gudi; 33. Þeir meiga ekki búa í þínu
landi, svo þeir ekki komi þér til ad falla frá
mér; ef þú þjónar þeirra gudum, þá mun þad
verda þér til ógæfu.

## 24. Kapituli.

Sáttmálsfórnin. Móses á fjallinu.

1. Og hann sagdi til Mósis: gakk upp til
Drottins, þú og Aron, Nadab og Abíhú, og

V. 28. Geitúngar: er fljúgandi skorkvikindi, hefir líkan búnadarhátt og býfluga, og bitur hástalega.

70 formenn Ísraelslýðs. Þér skulud falla fram álengdar; 2. Móses einn skal nálægja sig Drottni, en hinir skulu ekki koma nær, og fólkid skal ekki heldur fara upp híngad med honum. 3. Móses kom, og sagdi fólkinu øll ord Drottins og allar hans skipanir; þá svaradi fólkid einum munni, og sagdi: vér viljum breyta eptir øllum þeim ordum, sem Drottinn hefir talad. 4. Þá skrifadi Móses øll ord Drottins, og árla morguns stód hann upp, hlód altari fyrir nedan fjallid, og reisti 12 steina fyrir þær 12 kynkvíslir Ísraelsmanna; 5. sendi sídan únga menn af Ísraelslýd, ad þeir skyldu fórnfæra uxum í brennifórn og sláturs fórn, til þakkarfórnar vid Drottinn. 6. Móses tók helmíng blódsins, og lét þad í fórnarbolla, en ødrum helmíng blódsins støkti hann á altarid. 7. Hann tók sáttmálsbókina, og las hana ad áheyranda fólkinu, og þeir søgdu: vér viljum gjøra allt þad sem Drottinn hefir bodid, og vera honum hlýdugir. 8. Þá tók Móses blódid støkti því á fólkid, og sagdi: þetta er blód þess sáttmála, sem Drottinn hefir samid vid ydur um vardveitslu allra þessara bodorda.

9. Þá geingu þeir upp Moses og Aron, Nadab og Abíhú, og þeir 70 af formønnum Ísraeldslýds. 10. Þeir sáu Gud Ísraels; og var undir fótum hans, sem pallur væri gjørdur af gagnsærum saffírsteini, fagur sem heidur himininn; 11. en hann lagdi ekki hønd á høfdíngja Ísraelslýds, svo þeir skodudu Gud, og átu og drukku.

12. Drottinn sagdi vid Móses: kom upp á fjallid til mín, og vert þar, og skal eg fá þér steinspjøldin, og løgmálid og bodord þau, er eg hefi skrifad, til þess þú kénnir þeim þau. 13. Þá stód Móses upp og Jósúa, þjón hans, og gékk Móses upp á Guds fjall, 14. en sagdi til høfdíngjanna: verid hér kyrrir, þar til vér komum aptur til ydar; sjáid! Aron og Húr eru hjá ydur, og gétur hvørr, sem mál hefir ad kjæra haldid sér til þeirra. 15. Móses gékk þá upp á fjallid, en skýid huldi fjallid, og dýrdin Drottins stadnæmdist yfir Sínaí fjalli, og skýid huldi þad í 6 daga; en á sjøunda degi kalladi hann á Móses midt út af skýinu; 16. og dýrdarsjón Drottins á fjallstindinum var sem brennandi eldur í augsýn Ísraelsmanna. 17. En Móses gékk midt inn í skýid, og sté upp á fjallid; og var Móses á fjallinu í 40 daga og 40 nætur.

## 25. Kapítuli.

*Gáfur til helgidómsgjørdarinnar. Um ørkina, arkarlokid, skodunarbordid og ljósahjálminn.*

1. Drottinn mælti vid Móses, og sagdi: 2. seg Ísraelsmønnum, ad þeir velji mér upplyptíngarfórn, og skulu þeir þá fórn taka af hvørjum þeim, sem hana veitir af ljúfum huga. 3. Sú upplyptíngarfórn, sem þér skulud taka af þeim, skal vera gull, silfur, eir, 4. døkkblá ull, purpuri, skarlat, hvít vidarull, geitahár, 5. raudlitud hrútaskinn, selskinn, belgþornsvidur, 6. vidsmjør til ljósa, ilmjurtir til smurníngarvidsmjørs og ilmreykelsis, 7. sardonyx-steinar og vígslusteinar til høkulsins og brjóstskjaldarins. 8. Þeir skulu gjøra mér helgidóm, ad eg búi á medal þeirra, 9. í øllum greinum eptir þeirri fyrirmynd tjalbúdarinnar og allra hennar áhalda, sem eg mun sýna þér; þannig skulu þér hann tilbúa:

10. Þeir skulu gjøra ørk af belgþornsvidi; hún skal vera hálfrar þridju álnar ad leingd, hálfrar annarar álnar ad breidd, og hálfrar

V. 5. Belgþornsvidur er stórt, greinótt tré í Egyptalandi og Arabíu; børkur þess er alsettur svørtum þornbroddum; blómid gulleitt, ilmanda, og þá þad fellur, verda eptir svartleitir belgir, áþekkir baunahýdi; þegar tréd eldist, verdur þad næstum eins svart og Ebentré, og mjøg hardt; af þessu tré fæst hin svonefnda arabiska kvoda (*gummi arabicum*).

annarar álnar á hæd. 11. Hana skaltu gull-
búa utan og innan med skíru gulli, og á henni
ofanverdri skaltu gjøra rønd af gulli umhverf-
is. 12. Þú skalt steypa til arkarinnar fjóra
hrínga af gulli, og setja þá í horn hennar,
tvo hrínga annars vegar, og tvo hins vegar.
13. Þú skalt gjøra ása af belgþornsvidi, og
gullbúa þá; 14. sídan skaltu smeygja ásunum
í þá hrínga, sem eru á hlidvegum arkarinnar,
svo hana meigi bera á þeim; 15. skulu ásarn-
ir vera kyrrir í hríngum arkarinnar, og ekki
takast þadan. 16. Þú skalt leggja nidur í ørk-
ina løg þau, er eg mun fá þér í hendur.

17. Þú skalt og gjøra lok af skíru gulli,
hálfrar þridju álnar lángt, og hálfrar annarar
álnar breidt. 18. Á hvørumtveggja loksend-
anum skaltu gjøra tvo Kerúba; þá skaltu búa
til af drifnu gulli, 19. og lát annan Kerúb-
inn vera á loksendanum annars vegar, en hinn
á hinum endanum, svo ad þér látid Kerúbana
vera upp af lokinu á bádum endum þess. 20.
Þessir Kerúbar skulu vera med útbreiddum væng-
jum yfir uppí, svo ad þeir hylji lokid med væng-
junum, skulu andlit þeirra snúa hvørt í mót
ødru og horfa á lokid. 21. Þú skalt setja
lokid ofan á ørkina, og leggja nidur í ørkina
þau løg, sem eg mun fá þér. 22. Þar vil
eg vitrast þér, og ofan af arkarlokinu millum begg-
ja Kerúbanna, sem standa uppi á løgmálsørk-
inní, vil eg birta þér allar þær skipanir, sem
eg vil láta þig kunngjøra Ísraelsmønnum.

23. Þú skalt og gjøra bord af belgþorns-
vidi, tveggja álna lángt, álnar breidt, og hálfr-
ar annarar álnar hátt; 24. þú skalt búa þad
med skíru gulli, og gjøra umhverfis á því rønd
af gulli; umhverfis um þad skaltu leggja lista
þverhandar breidan, og búa til rønd af gulli
umhverfis á listanum. 26. Þá skaltu gjøra
fjóra hrínga af gulli, og setja hríngana í þau
fjøgur horn, sem eru á fjórum fótum bords-
ins; 27. skulu hríngar þessir vera á samkomu-
mótum listanna, svo þar í verdi smeygt ásum til
ad bera bordid á; 28. ásana skaltu búa til af belg-
þornsvidi, og gullbúa þá; á þeim ásum skal bera
bordid. 29. Føt þau, sem bordinu til heyra,
skálar, bolla, og dreypikér þau, sem til dreypi-
fórnar eru høfd, þad skaltu allt gjøra af skíru
gulli; 30. þú skalt ætíd leggja skodunarbraud á
þetta bord frammi fyrir mér.

31. Þar næst skaltu gjøra ljósahjálm af
skíru gulli, hann skal gjørdur vera af drifverki;
møndullinn, liljurnar, skálarnar, knapparnir og
laufin skulu vera samgjørvíngar. 32. Sex
liljur skulu liggja út frá ljósahjálminum, þrjár
liljur ødrumegin, og þrjár hinumegin; 33. á
einni liljunni skulu vera þrjár skálar, í løgun
sem mandelshvolf, med knøppum og laufum;
á næstu lilju skulu og vera þrjár skálar, í løg-
un sem mandelshvolf, med knøppum og lauf-
um; og svo skal á øllum 6 liljunum, sem út
liggja frá ljósahjálminum. 34. Á sjálfum
møndlinum skulu vera fjórar skálar, í løgun
sem mandelshvolf, med knøppum og laufum;
35. skal einn knappurinn vera undir tveimur
liljunum, og samgjørr vid møndulinn, og ann-
ar samgjørr knappur undir tveimur næstu lil-
jum, þá skal enn knappur vera undir hinum
tveimur liljunum, og enn samgjørr; þad eru
þrír knappar fyrir þær sex liljur, sem út ligg-
ja frá ljósastikunni. 36. Knapparnir og lil-
jurnar skulu vera samgjørvíngar; allt skal þad
gjørt vera af einlægu drifverki, og af skíru
gulli. 37. Þú skal gjøra 7 lampa med ljósa-
hjálminum, og skaltu svo upp setja lampana,
ad þú látir þá skína á framanverdan hjálminn;
38. ljósasøx og skarpønnur, sem hjálminum
fylgja, skulu vera af skíru gulli. 39. Hjálm-
urinn med øllum þessum umbúnadi skal gjør-
ast af einni vætt skírs gulls, 40. og sjá svo

til, ad þú gjørir hann eptir þeirri fyrirmynd, ſem þér var ſýnd á fjallinu.

## 26. Kapítuli.

Hér ſegir frá tjaldbúdar gjørdinni.

1. Tjaldbúdina ſkaltu gjøra af 10 dúkum, þeir ſkulu vera af hvítri vidarull tvinnadri, døkkblárri ull, purpura og ſkarlati; þar á ſkaltu búa til Kerúba med myndavefnadi. 2. Hvørr dúkur ſkal vera 28 álna lángur og fjøgra álna breidur, og ſkulu allir dúkarnir vera jafnir ad máli. 3. Fimm dúkarnir ſkulu tengjaſt ſaman hvørr vid annan, og eins ſkal teingja ſaman hina 5 dúkana ſín í milli. 4. Þú ſkalt búa til lykkjur af døkkblárri ull á endajadri eins dúkſins vid ſamkomuna, og eins ſkaltu gjøra á ytſta dúkjadrinum vid næſtu ſamkomu; 5. þú ſkalt búa til 50 lykkjur á ødrum dúknum, og eins ſkaltu gjøra 50 lykkjur á jadri þeſs dúksins, ſem er vid næſtu ſamkomu, ſvo ad lykkjurnar ſtandiſt á hvør vid adra. 6. Þú ſkalt gjøra 50 króka af gulli, og med þeſsum krókum ſkaltu teingja ſaman hvørn dúkinn vid annan, ſvo þar verdi ein tjaldbúd af. 7. Þú ſkalt og gjøra ábreidur af geitahári, til ad tjalda med yfir búdina; af þeim ábreidum ſkaltu búa til ellefu; 8. hvør ábreida ſkal vera 30 álna laung og fjøgra álna breid; allar 11 ábreidurnar ſkulu vera jafnar ad máli. 9. Þú ſkalt teingja ſaman 5 ábreidurnar ſér, og 6 ſér, en ſjøttu ábreiduna ſkaltu brjóta upp á ſig á framanverdu tjaldinu. 10. Þú ſkalt búa til 50 lykkjur á ytſta ábreidujadrinum vid ſamkomuna, og eins 50 lykkjur á ábreidujadrinum vid næſtu ſamkomu. 11. Þú ſkalt gjøra 50 eirkróka, og krækja krókunum í lykkjurnar, og teingja ſvo ſaman, ad eitt tjald verdi af. En afgángurinn, ſem yfir hefir af tjaldvodunum, nefnilega hálfa ábreidan, ſem var umfram, hún ſkal hánga út af tjaldbúdinni á baka til; 13. en ſú eina alin beggja vegna, ſem yfir hefir af tjaldvodunum á lengdina, ſkal hánga út af búdarhlidunum bádumegin, henni til hlífdar. 14. Þú ſkalt enn gjøra þak yfir tjaldid af raudlitudum hrútaſkinnum, og enn eitt þak þar utan yfir af ſelſkinnum.

15. Þú ſkalt telgja til beinan bordvid til búdarinnar af belgþornstrjám; 16. hvørt bord ſkal vera 10 álna lángt og hálfrar annarar álnar breidt. 17. Á hvørju bordi ſkulu vera tveir tappar, hvør jafnlángt frá ødrum, og ſvo ſkaltu gjøra á øllum bordum búdarinnar. 18. Þú ſkalt þannig haga bordvid búdarinnar: tuttugu bord ſkaltu ætla til ſudurhlidarinnar, hægra megin, 19. og ſkaltu búa til 40 palla af ſilfri til ad ſetja undir þau 20 bord, tvo palla undir eitt bordid, ſvo ad þeir tveir tappar, ſem á bordinu eru, falli þar í, og eins tvo palla undir næſta bord, ſinn fyrir hvørn tappa. 20. Til annarar hlidar á búdinni, gégnt nordri, ſkulu vera 20 bord, 21. og 40 ſilfurpallar fyrir þau, nefnilega tveir pallar undir eitt bordid, og tveir undir næſta bord. 22. Til búdargaflsins, gégnt veſtri, ſkaltu ætla 6 bord, 23. en tvø bord til búdarhornanna tveggja vegna; 24. þau ſkulu vera tvøføld nedan frá, og halda bædi fullu máli upp úr gégn allt til hins fyrſta hríngs; þannig ſkal þeim háttad vera hvørumtveggjum, þetta ſkulu vera þeir tveir horngaflar. 25. Þeſsi bord ſkulu vera 8, og med 16 ſilfurpøllum, og ſtandi tveir pallar undir einu bordinu, og tveir undir því næſta. 26. Því næſt ſkaltu gjøra þvertré af belgþornsvidi, 5 ad ødrum hlidvegi búdarinnar, 27. og 5 ad hinum,

V. 19. Pallur var ferkontud ſlétt af málmi, med einni holu í midjunni ad ofan, voru 2 pallar undir hvørju þilbordi og féllu þeſs 2 tappar í holurnar, einn pallur var undir hverri ſiod. 27, 10. ſ. 35, 11. 17. 36, 20. ſ. 38, 9. ſ. 39, 33. 40, 17.

og enn 5 þvertré að gaflþili búðarinnar vestanmegin. 28. Miðtréð skal gánga ígégnum borðveggina, og liggja um þvert frá einum enda til annars. 29. Þú skalt gullbúa borðveggina; en hríngi þá, sem eru í borðveggjunum, og sem þvertrjánum er smeygt inn í, skaltu gjöra af gulli; þú skalt og gullbúa þvertrén. 30. Þú skalt reisa tjaldbúðina eptir þeim hætti, sem þér var sýnt á fjallinu.

31. Þú skalt og gjöra fortjald af dökkblárri ull, purpura, skarlati, og hvítri viðarull tvinnaðri; þar á skaltu búa til Kerúba með myndavefnaði; 32. þú skalt festa það á fjórar stoðir af belgþornsviði, þær skulu vera gulli búnar, með krókum í af gulli, og standa á fjórum silfurpöllum; 33. þú skalt heingja fortjaldið upp á krókana, og flytja lögmálsörkina þángað inn fyrir fortjaldið, og skal fortjaldið skilja milli þess heilaga og hins allrahelgasta. 34. Þú skalt setja lokið ofan yfir lögmalsörkina í því allrahelgasta; 35. en borðið skaltu setja fyrir utan fortjaldið, og ljósahjálminn gagnvart borðinu við suðurhliðvegg búðarinnar, en lát borðið vera við norðurhliðveggiun. 36. Þú skalt og gjöra tjald fyrir búðardyrnar, það skal vera af dökkblárri ull, purpura, skarlati, hvítri viðarull tvinnaðri, og glitofið; 37. fyrir þetta tjald skaltu gjöra 5 stoðir, og gullbúa þær; krókarnir í þeim skulu vera af gulli, og þú skalt búa til 5 eirpalla undir þær.

## 27. Kapítuli.

Brennifórnar altarið, forgarðurinn, viðsmjörið belga.

1. Þú skalt gjöra altari af belgþornsviði, 5 álna lángt og 5 álna breidt, jafnt á fjóra vegu, og þriggja álna hátt. 2. Þú skalt gjöra horn á altarinu upp af fjórum hyrníngum þess, þau horn skulu vera sjálfgjör af altarinu; þú skalt eirbúa þetta altari. 3. Þú skalt gjöra öskutrogin, eldspaðana, fórnarskálirnar og soðkrókana, sem altarinu fylgja; öll þessi áhöld skaltu gjöra af eiri. 4. Þú skalt gjöra um altarið eirgrind, eins og riðið er net, og setja fjóra eirhrínga á fjögur horn grindarinnar; 5. grindina skaltu setja fyrir neðan umgjörð altarisins undir niðri, svo að grindin taki upp undir miðt altarið. 6. Þú skalt gjöra steingur til altarisins af belgþornsviði, og eirbúa þær; 7. skal smeygja staungunum í hríngana, og skulu steingurnar vera báðumegin við altarið, þá það er borið. 8. Þú skalt gjöra altarið af þiljum, svo það sé holt innan; þeir skulu gjöra það eins og þér var sýnt uppi á fjallinu.

9. Þú skalt og gjöra forgarð um tjaldbúðina; að sunnanverðu skal tjalda fyrir forgarðinn þeimmegin með tjöldum af hvítri viðarull tvinnaðri, 100 álna laungum; 10. þar til skulu vera 20 stoðir og 20 eirpallar, en krókarnir á stoðunum og syllurnar yfir þeim skulu vera af silfri. 11. Sömuleiðis skal að norðanverðu lángsettis vera tírætt tjöld, og þar til 20 stoðir á 20 eirpöllum, en krókarnir á stoðunum og syllurnar yfir þeim skulu vera af silfri; 12. en vestanmegin skal vera 50 álna lángt tjald, eins og forgarðurinn er breiður til, og þar til 10 stoðir á 10 pöllum. 13. Austanmegin mót sólaruppkomustað skal forgarðurinn vera 50 álna breiður; 14. þar skal annarsvegar vera 15 álna lángt tjald, og þar til þrjár stoðir á þremur pöllum, 15. og hinsvegar sömuleiðis 15 álna tjald með þremur stoðum og þremur pöllum. 16. Fyrir inngángi forgarðsins skal vera tvítugur dúkur af dökkblárri ull, purpura, skarlati, og hvítri viðarull tvinnaðri, glitofinn, og þar til fjórar stoðir á fjórum pöllum. 17. Allar stoðir umhverfis forgarðinn skulu vera með silfursyllum og silfurkrókum, og standa á eirpöllum. 18. Leingd forgarðsins skal vera 100 álna, og breiddin til beggja enda 50 álna, tjöldin af hvítri viðarull tvinnaðri, en pallarnir af eiri. 19. Öll

chøld tjaldbúdarinnar, til hvørrar þjónustugjørdar sem vera skal, svo og allir naglar, sem til búdarinnar og forgardsins heyra, skulu vera af eiri.

20. Þú skalt bjóda Ísraelsmønnum, ad þeir færi þér tært vidsmjør af steyttum vidsmjørsvidar berjum til lýsíngar, svo alltíd sé ljós uppi á lømpunum. 21. Í samkundutjaldbúdinni fyrir framan fortjaldid, sem hángir fyrir løgmálsørkinni, skal Aron og synir hans rada lømpunum frammi fyrir Drottni, bædi kvøld og morgna. Þad skal vera æfinlegur sídur hjá eptirkomendum þeirra medal Ísraels nidja.

## 28. Kapítuli.

*Sá kénnimannlegi skrúdi.*

1. Þú skalt velja Aron bródur þinn, og syni hans medal Ísraelsmanna, til ad vera mína kénnimenn; þad skal vera Aron og synir hans, Nadab, Abíhú, Eleasar og Ítamar. 2. Þú skalt gjøra Aroni bródur þínum helgan klædnad, sem vera skal vegsamlegur og prýdilegur. 3. Þú skalt tala vid alla þá menn, sem eru vel ad sér, og hvørjum eg hefi veitt gnóga hagleiks íþrótt, og skulu þeir gjøra Aroni vígsluklædi, ad hann sé minn kénnimadur. 4. Þessi eru þau klædi, sem þeir skulu gjøra: brjóstskjøldur, høkull, kyrtill, tíglofinn serkur, ennidúkur og belti; þennan helgan klædnad skulu þeir gjøra Aroni bródur þínum og sonum hans, svo þeir meigi vera mínir kénnimenn.

5. Þeir skulu taka gull, døkkbláa ull, purpura, skarlat og hvíta vidarull, og gjøra þar af høkulinn; 6. skal hann vera af gulli, døkkblárri ull, purpura, skarlati, hvítri vidarull tvinnadri, og forkunnarlega útofinn; 7. á honum skulu vera tveir axlarhlýrar samteingdir á bádum endum, og þar vid skal festa høkulinn. 8. Høkulbeltid, sem liggur utan yfir høkulinn, skal vera eins vandad og af sama, af gulli, døkkblárri ull, purpura, skarlati, og hvítri vidarull tvinnadri. 9. Þú skalt taka tvo sardonyx-steina, og grafa á þá nøfn Ísraelsmanna; 10. skulu sex nøfnin vera á ødrum steininum, en hin sex á hinum, eptir aldri ættfedranna. 11. Þú skalt grafa nøfn Ísraelsmanna á báda þessa steina eptir steinskurdar reglu og med innsiglisgrepti, og fella þá inn í umgjardir af gulli. 12. Þú skalt festa báda steinana á axlarhlýrum høkulsins, skulu þad vera minnissteinar fyrir Ísraelsmenn, og skal Aron bera nøfn þeirra frammi fyrir Drottni á bádum øxlum sér, til minníngar. 13. Umgjardirnar skaltu gjøra af gulli; 14. þú skalt og gjøra tvær festar af skíru gulli, þær skulu vera snúnar, eins og fléttur, og skaltu teingja þessar brugdnu festar vid umgjørdirnar.

15. Þú skalt og búa til dómskjøldinn, og láta hann vera eins vandadan og høkulinn; þú skalt gjøra hann af gulli, døkkblárri ull, purpura, skarlati, og hvítri vidarull tvinnadri. 16. Hann skal vera ferskeyttur og tvøfaldur, spannar lángur og spannar breidur. 17. Þú skalt setja í hann inngreypta steina, fjórar steinaradir: eina rød af Sardius, Tópas og Smaragdus, þad er fyrsta rødin; 18. í annari rødinni skal vera Karbunkulus, Saffírus, Demant; 19. í þridju rødinni, Opal, Agat og Ametystus; 20. í fjórdu rødinni, Turkos, Sardonyx og Jaspis; þeir skulu greyptir vera í gull, hvørr í sinni umgjørd. 21. Steinarnir skulu vera 12, eptir nøfnum Ísraelssona, hvørr med sínu nafni; þeir skulu vera grafnir med innsiglisgrepti, og skal sitt nafn vera á hvørjum þeirra, eptir nøfnum hinna 12 kynkvísla. 22. Þú skalt gjøra festar til brjóstskjaldarins af skíru gulli, þær skulu vera snúnar, eins og fléttur; 23. þú skalt og gjøra til brjóstskjaldarins tvo hrínga af gulli, og setja þessa tvo hrínga á tvø horn brjóstskjaldarins; 24. sídan skaltu bregda þeim tveimur gullfléttum í þessa tvo hrínga,

sem eru í hornum brjóstskjaldarins; 25. en báda enda þeirra tveggja festa skaltu festa hvørn gégnt ødrum vid þær tvær umgjardir, sem þú settir á axlarhlýra høkulsins. 26. Þá skaltu enn gjøra tvo hrínga af gulli, og festa þá í hin horn brjóstskjaldarins, innanverdt í þá brúnina, sem ad høklinum veit, 27. og enn skaltu gjøra tvo hrínga af gulli, og festa þá nedantil á bádum axlarhlýrum høkulsins, hvørn gégnt ødrum, þar sem mætist høkull og hlýrar, fyrir ofan høkulbeltid; 28. nú skal knýta brjóstskjøldinn, med sínum hríngnm, vid høkulhríngana med døkkbláum ullar dregli, svo brjóstskjøldurinn sé áfastur vid høkulbeltid, og losni ekki vid høkulinn. 29. Og Aron skal ávallt bera nøfn Israelsmanna í dómskildinum á brjósti sínu, þegar hann geingur inn í helgidóminn, til minníngar fyrir Drottni. 30. Þú skalt leggja inn í dómskjøldinn Ljósid og Sannleikann, svo þau séu á brjósti Arons, þegar hann geingur inn fyrir Drottinn, og Aron skal ávallt bera dóm Israelsmanna á brjósti sér frammi fyrir Drottni.

31. Þú skalt gjøra høkulkyrtil, hann skal vera ofinn, og allur úr døkkblárri ull; 32. á honum skal vera høfudsmát og faldad med ofnum borda kríngum hálsmálid, eins og um hálsmál á línbrynju, svo ekki rifni út úr. 33. Á faldi kyrtilsins skaltu búa til granatepli af døkkbláu bandi, purpura, og skarlati, umhverfis um faldinn, og bjøllur af gulli í milli eplanna allt í kríng, 34. svo ad fyrst skal koma gullbjalla, og þarnæst granatepli, sídan aptur á víxl, gullbjalla, og granatepli allt í kríng á kyrtilsfaldinum; 35. í þessum kyrtli skal Aron vera, þá hann embættar, svo ad heyra meigi til hans, þegar hann geingur inn í helgidóminn fram fyrir Drottinn og þá hann geingur út aptur, svo hann skuli ekki deya.

36. Þú skalt gjøra spaung af skíru gulli, og grafa á hana med innsiglisgrefti þessi ord: Heilagt fyrir Drottni; 37. þessa spaung skaltu festa á døkkbláan ullardregil, og skal hún sitja framan á ennidúknum; 38. hún skal vera á enni Arons, svo Aron afmái sekt þeirra helgigáfna, allra þeirra vígdra fórna, sem Israelsmenn géfa helgidóminum; hún skal ætíd vera á hans enni, til þess ad útvega þeim velþóknun Drottins.

39. Þú skalt og vefa serk af hvítri vidarull, og búa til ennidúk af hvítri vidarull, og glitofid belti.

40. Þú skalt og tilbúa serki handa sonum Arons, og gjøra þeim belti; einnig skaltu gjøra þeim høfuddúka til vegs og prýdi; 41. Þú skalt færa Aron bródur þinn og sonu hans í þessi klædi, smyrja þá, fá þeim embættid í hendur, og vígja þá til ad vera mína kénnimenn. 42. Þú skalt og gjøra þeim línbrækur, til ad hylja med blygdun þeirra; þær skulu ná frá mjødmum nidur á læri; 43. í þeim skal Aron og synir hans vera, þá þeir gánga inn í samkundu = tjaldbúdina, eda nálægja sig altarinu til ad embætta í helgidóminum, svo þeir ekki verdi fyrir sekt og láti líf sitt. Þetta skal vera æfinlegt løgmál fyrir hann og hans eptirkomendur.

## 29. Kapítuli.

Vígsla prestanna. Hin daglega fórn.

1. Þetta er sú reglugjørd, sem þú skalt fylgja, þegar þú vígir þá til ad vera mína kénnimenn: tak úngan uxa og tvo hrúta gallalausa, 2. sømuleidis ósýrt braud, ósýrdar køkur vidsmjøri stokknar, og ósýrda hleifa smurda med vidsmjøri; þetta skaltu gjøra af hveiti. 3. Þú skalt láta þetta í eina kørfu, og bera þad fram í kørfunni, og leida fram uxann og báda hrútana; 4. þá skaltu leida Aron og syni

V. 30. Ljósid og Sannleikann, þ. e. myndir, sem þýda áttu Ljós (gudlega opinberun) og Sannleika.

hans fyrir dyr samkundu-tjaldbúdarinnar, og lauga þá í vatni; 5. sídan skaltu taka klædin, og færa Aron í serkinn og høkulkyrtilinn og í høkulinn og brjóstskjøldinn, og gyrda hann med høkulbeltinu. 6. Þá skaltu leggja ennidúkinn um høfud honum, og láta hinn heilaga dregil (kap. 28, 36—38) um ennidúkinn; 7. þá skaltu taka smurníngar vidsmjørid, og hella því yfir høfud hans, og smyrja hann. 8. Sídan skaltu leida fram sonu hans, og færa þá í serkina, 9. gyrda þá med beltum, bædi Aron og sonu hans, og binda á þá høfuddúkana, og eru þeir þá fullgyldir til kennimannsskapar æfinlega, og skaltu fá þeim embættid í hendur, Aroni og sonum hans.

10. Sídan skaltu leida uxann fram fyrir samkundu-tjaldbúdina, og skulu þeir Aron og synir hans leggja hendur sínar á høfud uxanum, 11. en þú skalt slátra uxanum frammi fyrir Drottni, fyrir dyrum samkundu-tjaldbúdarinnar. 12. Sídan skaltu taka nokkud af blódi uxans, og rjódra med fíngri þínum á altarishornin, en øllu hinu blódinu skaltu nidur steypa vid altarisfótinn. 13. Þú skalt taka alla netjuna, blødkuna af lifrinni, bædi nýrun og nýrnamørinn, og brenna þad á altarinu; 14. en kjøt uxans, húdina og gorid skaltu brenna í eldi fyrir utan herbúdirnar, því þad er syndafórn.

15. Því næst skaltu taka annan hrútinn, og skulu þeir Aron og synir hans leggja hendur sínar á høfud hrútsins; 16. sídan skaltu slátra hrútnum, taka blód hans, og støkkva því allt um kríng á altarid. 17. En hrútinn skaltu lima í sundur, þvo innifli hans og læri, og leggja þau ofan á limina og høfudid, 18. og brenna svo allan hrútinn á altarinu; þad er brennifórn fyrir Drottni, og þakknæmilegur ilmur, þad er fórn sem Drottni líkar.

19. Þarnæst skaltu taka hinn hrútinn, og skulu þeir Aron og synir hans leggja hendur sínar á høfud hrútsins, 20. en þú skalt slátra hrútnum, og taka nokkud af blódi hans, og rída því á hægra eyrnasnepil Arons og sona hans, og á hægra þumalfíngur þeirra, og á hægri þumaltá þeirra, og støkkva blódinu um kríng á altarid; 21. þú skalt taka nokkud af því blódi, sem er á altarinu, og nokkud af smurníngarvidsmjørinu, og støkkva því á Aron og klædi hans, og þarmed á sonu hans og þeirra klædi, og verdur hann þá vígdur og hans klædi, og synir hans og þeirra klædi. 22. Sídan skaltu taka feitina af hrútnum, rófuna, netjuna, lifrarblødkuna, bædi nýrun og nýrnamørinn, og hægra lærid (því þetta er vígslufórnar hrútur), 23. eitt krínglubraud, eina vidsmjørskøku og einn hleif úr kørfunni med ósýrdu braudunum í, sem stendur frammi fyrir Drottni; 24. allt þetta skaltu leggja í hendur Arons og sona hans, og veifa því sem annari veifunarfórn frammi fyrir Drottni; 25. sídan skaltu taka þad af høndum þeirra, og brenna þad á altarinu yfir brennifórninni, til þakknæmilegs ilms fyrir Drottni: þad er fórn, sem Drottni líkar.

26. Því næst skaltu taka bríngunа af vígsluhrút Arons, og veifa henni sem annari veifunarfórn frammi fyrir Drottni; hún skal falla í þinn hlut; 27. þú skalt vígja veifunarbríngunа; og eins upplyptíngarlærid, sem veifad og upplypt hefir verid, af vígsluhrút Arons og sona hans; 28. þad skal tilheyra Aroni og sonum hans, eptir því løgmáli, sem æfinlega skal gilda hjá Israelsmønnum; því þad er upplyptíngarfórn, og upplyptíngarfórn skulu Israelsmenn færa af þakkarfórnum sínum, en upplyptíngarfórn þeirra heyrir Drottni til. 29. Þau helgu klædi, sem Aron hefir, skulu synir hans hafa eptir hann: í þeim skulu þeir smurdir verda, í þeim skal embættid verda þeim í hendur feingid. 30. Sá af sonum hans, sem

kénnimadur verdur í hans stad, skal sjø daga
vera í þeim, þá hann geingur inn í samkundu-
tjaldbúdina til ad embætta í helgidóminum. 31.
Þú skalt taka vígsluhrútinn, og sjóda kjøt hans
á helgum stad, 32. og skulu þeir Aron og
synir hans eta kjøt hrútsins og þad braud, sem
er í kørfunni fyrir dyrum samkundu-tjaldbúd-
arinnar; 33. þessvegna skulu þeir eta þetta, ad
þar med afplánast þad, ad madur hefir feingid
embættid í hendur þeim og vígt þá; en eing-
inn útlendur má eta þad, því þad er vígt.
34. En ef nokkud leifist af vígslufórnar kjøt-
inu og braudinu til næsta morguns, þá skaltu
brenna þær leifar í eldi; þad má ekki eta,
því þad er vígt. 35. Þú skalt svo gjøra vid
Aron og sonu hans í alla stadi, eins og eg
hefi bodid þér; í sjø daga skaltú leggja vígslu-
fórnina í hendur þeim, 36. og á hvørjum
degi skaltu slátra uxa í syndafórn til forlíkun-
ar, og fórna syndafórn á altarinu til ad frid-
helga þad, og þú skalt smyrja þad undir vígsl-
una. 37. Þú skalt vera í 7 daga ad frid-
helga altarid og vígja þad, og þá skal altarid
verda alheilagt, og hvørr sá, sem snertir alt-
arid, skal vera heilagur.

38. Þessi er sú fórn, sem þú skalt fórnfæra
á altarinu: ætíd hvørn dag tvø ásaudarlømb
veturgømul; 39. ødru lambinu skaltu fórn-
færa ad morgni dags, en hinu eptir sólarlag.
40. Med ødru lambinu skal hafa tíunda part
af hveiti, bløndudu vid fjórdúng Hínar af
steyttu vidsmjøri, og til dreypifórnar fjordúng
Hínar af víni; 41. hinu lambinu skaltu fórn-
færa eptir sólarfall, og hafa vid sømu matar-
fórn og dreypifórn, sem um morguninn, til
þakknæmilegs ilms, til þægilegrar fórnar fyrir
Drottni. 42. Þetta er sú daglega brennifórn,
sem ydar nidjar skulu fórnfæra fyrir dyrum
samkundu-tjaldbúdarinnar í augsýn Drottins;
þar vil eg koma á ydvarn fund, til ad tala
þar vid þig: 43. þar vil eg eiga fund vid
Israelsmenn, og þessi stadur skal helgast af
minni dýrd; 44. eg vil helga samkundu-tjald-
búdina og altarid, eg vil helga Aron og sonu
hans til ad vera mína kénnimenn; 45. eg vil
búa á medal Israelsmanna, og vera þeirra
Gud; 46. þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drott-
inn, þeirra Gud, sem útleiddi þá af Egypta-
landi, til þess eg mætti búa medal þeirra. Eg
em Drottinn, Gud þeirra.

## 30. Kapítuli.

Reykelsis-altarid. Helgidóms tollurinn. Eirkérid. Smurníngar vidsmjørid. Þad heilaga reykelsi.

1. Þú skalt gjøra altari til ad brenna reyk-
elsi á; þad skaltu búa til af belgþorns vidi;
2. þad skal vera álnar lángt, og álnar breidt,
ferskeytt, tveggja álna hátt, og horn þess sam-
gjør vid altarid. 3. Þú skalt búa þad med
skíru gulli, bædi ad ofan og á hlidum allt um
kríng, og svo horn þess; þú skalt gjøra gull-
rønd á því allt umhverfis. 4. Þar til skaltu
gjøra tvo hrínga af gulli fyrir nedan røndina,
bádumegin á hyrníngum þess; þeir skulu vera
til ad smeygja í ásum þeim, sem altarid skal
berast á. 5. Asana skaltu gjøra af belgþorns
vidi, og gullbúa þá. 6. Þú skalt setja þetta
altari fyrir framan fortjaldid, sem hángir fyrir
løgmálsørkinni, gégnt arkarlokinu, sem er yfir
løgbókinni, hvar eg vil halda stefnu vid þig.
7. Á þessu altari skal Aron brenna ilmandi
reykelsi; hann skal brenna því á hvørjum
morgni, þá hann hefir hagrædt lømpunum; 8.
hann skal og brenna því eptir sólsetur, þá
hann hefir kveykt á lømpunum. Þetta skal
vera dagleg reykelsisfórn fyrir Drottni hjá ydar
eptirkomendum. 9. Á þessu altari meigid þér ekki
fórna útlendsku reykelsi, ekki heldur neinni brenni-
fórn eda matarfórn, og eingri dreypifórn meigid
þér dreypa á því. 10. Einusinni á ári skal

Aron fridhelga altarishornin med fridþægjandi syndafórn. Þessi fridhelgun skal gjörast eitt sinn á ári hvörju hjá ydar eptirkomendum; þetta altari er alheilagt í augliti Drottins.

11. Drottinn taladi vid Móses, og sagdi: 12. þegar þú tekur manntal Israelslýds, þá skal hvörr madur, sem í manntali verdur, gjalda Drottni sálarlausn, svo ad eingin plága komi yfir þá, þegar þeir eru taldir. 13. Þessa lausn skal hvörr sá gjalda, sem í manntali verdur, þad er hálfur sikill, ad helgidóms auralagi, 20 Gerar í sikli, og þessi hálfi sikill skal vera upplyptíngarfórn til Drottins. 14. Hvörr sem í manntali verdur, tvítugur og þadan af eldri, skal greida Drottni þessa upplyptíngarfórn. 15. Sá ríki skal ekki láta til meir, og sá fátæki ekki minna en hálfan sikil, og skulu þeir greida Drottni þessa upplyptíngarfórn, til þess hann fridi fyrir sálum þeirra. 16. Þú skalt taka þetta lausnargjald af Israelsmönnum, og leggja þad til þjónnstu samkundubúdarinnar; þad skal vera Israelsmönnum til minníngar fyrir Drottni, ad hann fridi fyrir sálum þeirra.

17. Drottinn taladi til Mósis, og sagdi: 18. Þú skalt gjöra eirkér til ad þvo sér úr, þad skal vera med eirstétt; þú skalt láta þad standa milli samkundubúdarinnar og altarisins, og láta vatn þar í. 19. Þar úr skal Aron og synir hans þvo hendur sínar og fætur; 20. þegar þeir gánga inn í samkundubúdina, skulu þeir þvo sér úr vatni, svo þeir ekki deyi: eins þegar þeir nálægja síg altarinu til ad embætta og tendra eldfórn fyrir Drottni; 21. þeir skulu þvo sér um hendur og fætur, svo þeir deyi ekki; þetta skal vera þeim eylíft lögmál fyrir hann og hans ættnidja.

22. Drottinn sagdi vid Móses: 23. tak þér þær ágætustu kryddjurtir, 500 sikla af sjálfrunninni myrru, hálfu minna edur 250 sikla af kanelberki, og 250 sikla af ilmreyr, 24. 500 sikla af ángvidi, eptir helgidóms vog, og eina Hín vidsmjörs; 25. af þessu skaltu gjöra heilagt smurníngar vidsmjör, ilmandi smyrsli, og tilbúa þau á kryddarahátt; skal þetta vera þad heilaga smurníngar vidsmjör. 26. Med þessu skaltu smyrja samkundubúdina, lögmálsörkina, 27. bordid med öllum þess áhöldum, ljósahjálminn med því sem honum tilheyrir, reykelsis altarid, 28. brennifórnar altarid med öllum þess áhöldum, eirkérid, og stétt þess; 29. þetta skaltu vígja, svo þad verdi alheilagt, og hvörr sem snertir þad, skal vera heilagur. 30. Þú skalt og smyrja Aron og sonu hans, og vígja þá til ad vera mína kénnimenn. 31. Þú skalt tala til Israelsmanna, og segja: þetta skal vera mér heilagt smurníngarvidsmjör hjá ydar eptirkomendum. 32. Þessum smyrslum má ekki rída á nokkurs manns hörund, og einginn má gjöra nokkur smyrsli med þessum tilbúníngi; þau eru heilög, og þau skulu vera ydur heilög. 33. Hvörr sem kryddar samskonar smyrsl, edur ber þau á nokkurn útlendan mann, hann skal hafa fyrirgjört lífi sínu.

34. Drottinn sagdi til Mósis: tak þér ilmjurtir, balsam, marnögl, galbanskvodu; af þessum ilmunum ásamt med reykelsiskvodu, jafnt af hvörju, 35. skaltu búa til ilmandi reykelsi, eptir kryddara hætti; þad skal vera salti kryddad, hreint og heilagt. 36. Nokkud af því skaltu mylja smátt, og leggja þad fyrir framan lögmálsörkina í samkundu-tjaldbúdinni, þar sem eg vil koma til móts vid þig; þad skal vera ydur alheilagt. 37. Annad eins reykelsi, og þú gjörir med þessum tilbúníngi, meigid þér ekki tilbúa handa ydur; þad skal vera ydur heilagt fyrir Drottni. 38. Hvörr sem býr til annad eins, til þess ad gjæda sér med ilm þess, sá skal hafa fyrirgjört lífi sínu.

## 31. Kapítuli.

Drottinn velur meistara til tjaldbúdarsmídarinnar. Helgihald hvíldardagsins. Løgmálstøflurnar.

1. Drottinn mælti vid Móses, og sagdi: 2. eg hefi kvadt til Besalel Uríson Húrssonar af Júda ættkvísl; 3. eg hefi veitt honum gudlega andagift, hagleik, kunnáttu og skilníng, í allskonar handidnum, 4. svo ad hann er mesti hugvitsmadur á gull og silfur og eir, 5. á steingrøpt, steinsetníng, tréskurd og allskonar smídar. 6. Eg hefi ætlad honum til adstodar Oholíab Akísamaksson af Dans ættkvísl, og veitt hefi eg ymsum hagleiksmønnum þad hugvit, ad þeir skulu gjørt géta allt þad, sem eg hefi fyrir þig lagt, 7. sem er samkundutjaldbúdin, løgmáls ørkin, arkarlokid og allur umbúnadur tjaldbúdarinnar, 8. bordid og þess áhøld, sá ljómandi ljósahjálmur og allt sem til hans heyrir, reykelsis altarid, 9. brennifórnar altarid med øllum sínum búnadi, eirkérid med stétt þess, 10. glitklædin, vígsluklædi Arons kénnimanns, og kénnimannabúníngur sona hans, 11. smurníngar vidsmjørid, þad ilmandi reykelsi til helgidómsins; allt sem eg hefi bodid þér, skulu þeir gjørt géta.

12. Drottinn taladi til Mósis, og sagdi: 13. tala þú til Israelsmanna, og seg: þér skulud halda mína hvíldardaga, því þad er jarteikn medal mín og ydar og ydvarra nidja, svo þér vitid, ad eg Drottinn er sá, sem ydur gjørir heilaga. 14. Haldid því hvíldardaginn, því hann skal vera ydur heilagur; hvørr sem vanhelgar hann, skal láta líf sitt: því hvørr sem þá vinnur, sá madur skal verda afmádur af sínu fólki. 15. Menn skulu vinna í sex daga, en sjøunda daginn er hátídishvíld, helgud Drottni; hvørr sem vinnur á hvíldardeginum, skal láta líf sitt. 16. Þar fyrir skulu Israelsmenn halda hvíldardaginn, svo þeir gjøri hvíldardaginn ad eylífum sáttmála fyrir sína eptirkomendur; 17. eylíflega skal hann vera jarteikn medal mín og Israelmanna, því á sex døgum skóp Drottinn himin og jørd, en lét af og hvíldist á hinum sjøunda degi.

18. Þegar hann hafdi lokid þessum vidrædum vid Móses á Sínaí fjalli, fékk hann honum tvær løgmálstøflur, þær voru af steini og ritadar med Guds fíngri.

## 32. Kapítuli.

Gullkálfurinn.

1. En er fólkid sá, ad seinkadist koma Mósis af fjallinu, þá fóru þeir á fund Arons, og søgdu til hans: kom og gjør oss gudi þá, er fyrir oss fari, því vér vitum ekki, hvad af þessum Móses er ordid, er oss leiddi burt af Egyptalandi. 2. Aron sagdi til þeirra: takid eyrnagullin úr eyrum kvenna ydvarra, sona og dætra, og færid mér! 3. Þá tók allur lýdurinn eyrnagullin úr eyrum þeirra, og færdu Aroni, 4. en hann tók vid gullinu af þeim, lagadi þad med grafalnum *) og gjørdi þar af steyptan kálf. Þá søgdu þeir: Israelslýdur, þetta eru þínir gudir, sem færdu þig burt af Egyptalandi. 5. Þegar Aron sá þad, hlód hann þeim altari, kalladi þá saman og sagdi: á morgun er hátíd Drottins. 6. Næsta morgun risu þeir upp árla, fórnudu brennifórnum og færdu þakkarfórnir; sídan settist fólkid nidur til ad eta og drekka, og þvínæst stódu þeir upp til ad gamna sér.

7. Þá sagdi Drottinn til Mósis: far ofan í skýndi, því landar þínir, sem þú útleiddir af Egyptalandi, hafa stórum syndgad; 8. skjótt hafa þeir vikid af þeim vegi, sem eg baud þeim, þeir hafa gjørt sér steyptan kálf, fallid fram fyrir honum, fórnad honum, og sagt: Israelslýdur, þetta eru þínir gudir, sem leiddu þig

*) myndadi þad í móti?

út af Egyptalandi. 9. Og enn sagdi Drottinn vid Móses: eg hefi reynt þenna lýd, og fundid, ad hann er baldstýrugur. 10. Lát mig nú kyrran, svo mín reidi upptendrist í gégn þeim og eydileggi þá; sídan vil eg láta stóra þjód ærlast út af þér. 11. Þá bad Móses audmjúklega til Drottins Guds síns, og sagdi: hví skal þín reidi, Drottinn, upptendrast gégn þínu fólki, sem þú útleiddir af Egyptalandi med miklum styrk og voldugri hendi? 12. hví skulu Egyptalandsmenn segja, og kveda svo ad ordi: til ills leiddi hann þá út, til ad deyda þá á fjøllum uppi, og afmá þá af jørdunni? Snú þér frá þinni brennandi reidi, og hlíf þínu fólki vid slíku tjóni! 13. Minnst þinna þjóna, Abrahams, Isaaks og Jakobs, hvørjum þú hefir svarid vid sjálfan þig og géfid þetta fyrirheit: eg vil gjøra ydar afkomendur eins marga og stjørnur himinsins, og allt þetta land, sem eg hefi um talad, vil eg géfa ydar nidjum, og þeir skulu eignast þad æfinlega. 14. Þá hlífdist Drottinn vid ad gjøra sínu fólki þad tjón, sem hann hafdi um talad.

15. Sídan snéri Móses burt, og gékk ofan af fjallinu; hann hafdi bádar løgmálstøflurnar í hendi sér; þær tøflur voru skrifadar bádum megin, á einni hlidinni, sem á annari; 16. þessar tøflur voru verk Guds, og letrid, sem grafid var á tøflurnar, var Guds letur. 17. Nú sem Jósúa heyrdi ópid í fólkinu, sagdi hann til Mósis: þad er herróp í herbúdunum! 18. Hann svaradi: þad hljód, sem eg heyri, er ekki sigurróp og ekki valhljód, heldur saunglæti. 19. En er Móses nálgadist herbúdirnar, og sá kálfinn og dansleikinn, þá vard hann stórreidur, kastadi tøflunum úr hendi sér, og braut þær í sundur fyrir nedan fjallid; 20. sídan tók hann kálfinn, sem þeir høfdu gjørt, brendi hann í eldi, muldi hann í smátt, og dreifdi duptinu á vatnid, og lét Israelsmenn drekka. 21. Þá sagdi Móses til Arons: hvad hefir þetta fólk gjørt þér þess, ad þú skulir hafa leidt þá í slíkt stórmæli? 22. Aron svaradi: reidst eigi, herra! þú þekkir þetta fólk, ad þad er lastafullt; 23. þeir søgdu til mín: gjør oss gudi þá, er fyrir oss fari, því vér vitum ei, hvad af þessum Móses er ordid, er leiddi oss burt af Egyptalandi. 24. Þá sagdi eg til þeirra: hvørr sem gull hefir á sér hann slíti þad af sér; feingu þeir mér þá gullid, lét eg þad í eld, og kom þá fram þessi kálfur. 25. En er Móses sá, ad fólkid var taumlaust, því Aron hafdi slept vid þá taumnum, til þess þeir skyldu verda fyrir hneisu af mótstødumønnum sínum, 26. þá gékk hann upp í herbúda hlidid, og mælti: komi til mín hvørr sá, er Drottni vill fylgja! Þá søfnudust allir Levítar til hans, 27. og hann sagdi til þeirra: svo segir Drottinn Israels Gud: hvørr einn festi sverd á hlid sér, fari svo fram og aptur frá einu hlidi herbúdanna til annars, og slái hvørr sinn bródur, vin og frænda í hel! 28. Levítar gjørdu, sem Móses baud þeim, og féllu af fólkinu á þeim deigi þrjár þúsundir manna; 29. því Móses hafdi sagt: verid ørlátir í dag vid Drottinn (færid Drottni fullar hendur fórna í dag), og sæki hvørr ad syni sínum og bródur, og mun hann veita ydur blessun í dag. 30. Næsta dags morgun sagdi Móses til lýdsins: þér hafid drýgt stóra synd; en nú vil eg fara upp til Drottins, má vera ad eg fái uppgjøf á ydvarri synd. 31. Sídan snéri Móses aptur til Drottins, og mælti: æ, þetta fólk hefir framid stóra synd, er þad hefir gjørt sér god úr gulli! 32. Eg bid, fyrirgéf þeim nú þeirra synd! ef ekki, þá bid eg, ad þú afmáir mig af þinni bók, sem þú hefir skrifad. 33. Drottinn sagdi til Mósis: þann, sem syndgad hefir móti mér, vil eg afmá af minni bók; 34. far nú, og leid fólkid þángad sem eg hefi sagt

þér; sjá! minn Eingill skal fara fyrir þér; en þegar minn hegningartími kémur, skal eg hegna þeim fyrir þeirra syndir. 35. En Drottinn sló fólkid, af því þeir høfdu látid Aron gjøra kálfinn (fyrir þad, sem þeir høfdu gjørt vid kálfinn, sem Aron hafdi gjørt).

## 33. Kapítuli.

Afturbót fólksins; Móses bidur fyrir því.

1. Drottinn sagdi til Mósis: gakk, og far hédan med þad fólk, sem þú fluttir burt af Egyptalandi, til þess lands, sem eg sór ad géfa Abraham, Isaak og Jakob, er eg sagda: nidjum þínum vil eg géfa þad. 2. Eg vil senda eingil á undan þér — og útreka Kananíta, Amoríta, Hetíta, Feresíta, Hevíta og Jebúsíta — 3. til þess lands, sem flýtur af mjólk og húnángi; en ekki vil eg sjálfur fara upp þángad med þér, sem ert svo baldstýrugur lýdur, svo eg ekki tortýni þér á leidinni. 4. En er fólkid heyrdi þennan óføgnud, grét þad, og einginn madur bjó sig í skart. 5. Því Drottinn hafdi sagt til Mósis: seg Israelsmønnum: þér erud baldstýrug þjód; sé eg eitt augnablik medal þín á leidinni, þá tortýni eg þér; en legg nú af þér skart þitt, svo eg viti, hvad eg á ad gjøra vid þig. 6. Þá løgdu Israelsmenn nidur skart sitt á fjallinu Hóreb. 7. En Móses tók tjald (sitt), og tjaldadi fyrir utan herbúdirnar, lángan veg þadan frá, og kalladi þad samkundutjald; og vard hvørr sá madur, sem adspyrja vildi Drottinn, ad fara út til samkundutjaldsins, sem var fyrir utan herbúdirnar. 8. Og þegar Móses gékk út til tjaldsins, þá stód upp allur lýdurinn, og gékk hvørr út í sínar tjalddyr, og leit eptir honum, þar til hann kom ad tjaldinu; 9. og er Móses kom ad tjaldinu, þá seig skýstólpinn nidur og nam stadar vid tjalddyrnar, og (Drottinn) taladi vid Móses. 10. Allur lýdurinn sá, hvar skýstólpinn stód vid tjalddyrnar, stód þá allt fólkid upp og féll fram á sína ásjónu, hvørr fyrir sínum tjalddyrum. 11. En Drottinn taladi vid Móses auglíti til auglitis, eins og madur talar vid mann; og þegar Móses gékk aptur til herbúdanna, veik hans þjón, sá úngi Jósúa, sonur Núns, ekki frá tjaldinu.

12. Móses sagdi til Drottins: sjá! þú segir mér, ad eg skuli fara med fólkid upp þángad, en hefir ekki látid mig vita, hvørn þú vilt senda med mér; og þó hefir þú sagt, ad eg sé þér handgeinginn, og hafi fundid líkn fyrir þínu augliti; 13. hafi eg nú fundid líkn fyrir þínu augliti, þá bid eg þig vísa mér þinn veg, svo eg megi þekkja þig og finna líkn fyrir þínu augliti; því sjá! þessi þjód er þitt fólk! 14. Hann sagdi: mitt auglit skal fara med, og eg vil veita þér hvíld. 15. Hann svaradi honum: ef þitt auglit fer ei med, þá lát oss ekki fara hédan; 16. af hvørju megu menn ella vita, ad eg og þitt fólk hafi fundid líkn fyrir þínu augliti, utan þar af, ad þú farir med oss, og eg og þitt fólk verdum adgreindir frá øllum þjódum, sem á jørdu búa? 17. Þá sagdi Drottinn vid Móses: einnig þetta, sem þú mælist til, vil eg gjøra, því þú hefir fundid líkn fyrir mínu augliti, og eg þekki þig grandt. 18. En hann sagdi: lát mig þá sjá þína dýrd! 19. Hann svaradi: eg vil láta allan minn fegurdarljóma lída fram hjá þér, og eg vil nefna nafn Drottins frammi fyrir þér; þeim sem eg er líknsamur, þeim er eg líknsamur, og þeim sem eg er miskunsamur, þeim er eg miskunsamur. 20. Og enn sagdi hann: mitt auglit gétur þú ei sjed, því einginn madur, sem mig sjer, má lifa. 21. Og enn sagdi Drottinn: sjá! hér er stadur hjá mér; þú skalt standa uppi á berginu, 22. en þegar mín dýrd fer fram hjá, vil eg láta þig standa í bergskorunni, og mun eg byrgja þig med hendi minni, uns eg em kominn fram hjá, 23. en þegar eg tek mína

hønd frá, þá muntu sjá á bak mér; en mitt auglit verdur ekki sjed.

## 34. Kapituli.

Nýar Løgmálstøflur. Dýrdin Drottins. Guds sáttmáli. Mósis ljómandi ásjóna.

1. Drottinn sagdi til Mósis: høgg þér tvær
tøflur af steini, slíkar sem þær fyrri voru; mun
eg þá rita á þær tøflur þau ord, sem stódu á
hinum fyrri tøflunum, er þú brautst í sundur.
2. Vert búinn á morgun, og stíg árla upp á
Sínaí-fjall, og kom þar til mín uppi á fjalls-
tindinum. 3. Einginn madur má fara upp þáng-
ad með þér, og einginn má láta sjá sig nokkurs-
stadar á fjallinu, og ekki má heldur beita naut-
um eda saudum hér upp undir fjallid. 4. Þá
hjó Móses tvær tøflur af steini, slíkar sem hinar
fyrri voru; hann reis upp snemma um morgun-
inn, og gékk upp á Sínaí-fjall, sem Drottinn
hafdi bodid honum, og tók í hønd sér bádar stein-
tøflurnar. 5. Þá steig Drottinn nidur í skýi, stad-
næmdist þar hjá honum, og nefndi nafn Drott-
ins; 6. sídan gékk Drottinn fram fyrir hans
augsýn, og kalladi: Drottinn, Drottinn,
miskunsamur og líknsamur Gud, þolinmódur,
gjædskuríkur og trúfastur, 7. sem audsýnir
gjædsku í þúsund lidu, og fyrirgéfur misgjørdir,
afbrot og syndir, en lætur þær þó ekki ávallt ó-
hegndar, heldur hegnir misgjørdir fedranna á
børnum og barnabørnum í þridja og fjórda lid.
8. Móses laut þegar til jardar, tilbad, 9. og
sagdi: hafi eg, Drottinn, fundid líkn fyrir þínu
augliti, þá fari Drottinn med oss, enn þótt þessi
lýdur sé baldstýrugur; fyrirgéf oss vorar mis-
gjørdir og syndir, og lát oss vera þína eign. 10.
Og hann sagdi: eg vil gjøra eitt sáttmál; í aug-
sýn alls þíns fólks vil eg gjøra þau stórmerki, sem
aldrei hafa slík ordid í nokkuru landi eda hjá
nokkurri þjód; allt fólkid, sem þú ert hjá, skal
sjá þad verk, sem Drottinn mun vinna, því
dásamlegt skal þad vera, sem eg gjøri vid þitt
fólk. 11. Gjæt því þess, sem eg býd þér í
dag: sjá! eg vil útreka Amoríta, Kananíta,
Hetíta, Feresíta, Hevíta og Jebúsíta undan
þér; 12. varast því ad gjøra nokkurn sáttmála
vid innbúa þessa lands, sem þú kémur til, svo
þeir verdi þér ekki til falls, ef þeir búa á med-
al þín; 13. heldur skulud þér nidurbrjóta þeirra
ølturu, mølva í sundur þeirra godalíkneskjur,
og høggva nidur þeirra afgudi; 14. því þú
mátt ekki falla framm fyrir nokkurum afgudi,
því Drottinn heitir vandlætari, hann er vand-
látur Gud. 15. Varast ad gjøra nokkurn sátt-
mála vid innbúa landsins; þeir munu blóta
afgudi sína og færa þeim fórnir, þeir munu
bjóda þér, og þú munt eta af þeirra fórnum;
16. þú munt taka þeirra dætur handa sonum
þínum, en þær munu blóta sína afgudi og
lokka syni þína til ad blóta þá líka. 17. Þú
mátt eingin steypt god gjøra þér. 18. Þú skalt
halda hátíd enna ósýrdu brauda; sjø daga
skaltú eta ósýrd braud, eins og eg hefi bodid
þér, á ákvednum tíma í mánudinum Abíb, því
í mánudinum Abíb fórst þú út af Egyptalandi.
19. Allt þad sem fyrst fædist, heyrir mér til;
sømuleidis allt sem karlkyns fædist af fénadi
þínum, frumburdi nauta og sauda. 20. Frum-
burdi undan øsnum skaltu leysa med lambi;
leysir þú ekki, skaltu brjóta þá úr hálslidum;
alla frumburdi sona þinna skaltu leysa; eing-
inn skal med tómar hendur koma fram fyrir
mitt auglit. 21. Sex daga skaltu vinna, en
hvílast þann sjøunda dag, þá skaltu ekkért
vinna, hvørt sem heldur er plægingartími eda
kornskéru. 22. Þú skalt halda (sjø-*) vikna
hátídina, og fórna þá frumgróda hveitiaflans;
svo og uppskéru hátídina vid árslokin. 23.
Þremsinnum á ári skal allt þitt karlkyn birtast

*) 3 Mós. 23, 15—17; 2 Mós. 23, 16.

frammi fyrir Drottni almáttugum, Gudi Ísraels. 24. Eg vil støkkva heidíngjunum undan þér, og færa út landamerki þín, og þá skal eínginn áseilast þitt land, þegar þú fer upp þrem sinnum á ári til ad birtast frammi fyrir Drottni, Gudi þínum. 25. Þú mátt ekki fórnfæra fórnarblódi mínu med sýrdu braudi, og páskafórnin má ekki liggja til morguns. 26. Þad besta af frumgróda þíns lands skaltu færa til húss Drottins Guds þíns. Þú mátt ekki sjóda kidid í mjólk módur sinnar. 27. Drottinn sagdi til Móses: skrifa þú upp þessi ord, því samkvæmt þessum ordum hefi eg gjørt sáttmála vid þig og Ísraelsmenn. 28. Þar var hann hjá Drottni í 40 daga og 40 nætur, og át ekki braud og drakk ekki vatn. Hann skrifadi á tøflurnar ord sáttmálans, þau tíu bodordin.

29. Móses gékk ofan af Sínaí fjalli, og hafdi bádar løgmálstøflurnar í hendi sér; en er hann kom ofan af fjallinu, vissi hann ekki, ad geislar stódu af andliti sínu, af því hann hafdi talad vid Gud. 30. En er Aron og allir Ísraelsmenn sáu, ad geislar stódu af andliti hans, þá þordu þeir ekki ad koma nærri honum. 31. Þá kalladi Móses á þá, og snéru þeir sér þá til hans, Aron og allir høfdíngjar alþýdunnar, og taladi Móses vid þá. 32. Eptir þad geingu allir Ísraelsmenn til hans, og þá baud hann þeim ad halda allt þad, sem Drottinn hafdi talad vid hann á Sínaí fjalli. 33. Og er Móses hafdi lokid rædu sinni vid þá, lét hann skýlu fyrir sitt andlit; 34. en er hann gékk fram fyrir Drottinn ad tala vid hann, tók hann skýluna frá, þar til hann gékk út aptur; gékk sídan út, og taladi vid Ísraelsmenn þad sem honum var bodid; 35. sáu Ísraelsmenn þá andlit Móses, hvørsu geislar støfudu af ásjónu hans; þá lét hann skýluna aptur fyrir andlit sitt, þar til hann gékk aptur til Guds ad tala vid hann.

## 35. Kapítuli.

Hvíldardags hald. Upplyptíngar fórn til tjaldbúdarinnar. Ágjæti Besalels og Oholíabs.

1. Móses stefndi saman allri alþýdu Ísraelsmanna, og sagdi til þeirra: Þetta er þad, sem Drottinn hefir bodid ad gjøra: 2. Sex daga skaltu verk vinna, en á þeim sjøunda degi skulud þér halda heilagt, þá er hátídarhvíld fyrir Drottni; hvørr sem nokkurt verk vinnur á þeim degi, hann skal láta líf sitt. 3. Þér skulud eingan eld gjøra í øllum ydar hýbýlum á hvíldardegi.

4. Móses taladi til allrar alþýdu Ísraelsmanna, og sagdi: þetta er þad sem Drottinn hefir bodid, er hann sagdi: 5. veljid Drottni upplyptíngar fórn; sérhvørr sá, sem gefa vill af gódum hug, færi Drottni þessa lyptíngarfórn, gull, silfur, eir, 6. bláa ull, purpura, skarlat, hvíta vidarull, geitahár, 7. raudlitud hrútaskinn, selskinn, belgþorns vid, 8. vidsmjør til ljósa, ilmjurtir til smurníngar vidsmjørs og ilmanda reykelsis, 9. sardonyx-steina og vígslusteina til høkulsins og brjóstskjaldarins. 10. Hvørr af ydur, sem er hagrar náttúru, komi, og vinni ad øllu því, sem Drottinn hefir bodid; 11. þad er búdin og tjøld hennar, og þak, krókar, bordvidur, þvertré, stodir og pallar; 12. ørkin og hennar ásar, arkarlokid og fortjaldid þar fyrir framan; 13. bordid og þess ásar, øll þess áhøld og skodunarbraudin; 14. ljósahjálmurinn til ad lýsa, og þad sem honum fylgir, lampar og vidsmjør til lýsíngar; 15. reykelsis altarid og þess ásar, smurníngar vidsmjør, ilmreykelsi, dyratjald fyrir búdardyrnar; 16. brennifórnar altarid, og eirgrindin, sem því fylgir, ásar þess og allur umbúnadur, og eirkérid med stétt þess; 17. lángtjøld forgardsins med stodum og pøllum, sem þar til heyra, og dyratjald forgardsins; 18. naglar til búdarinnar og forgardsins, og þau støg, sem

þar fylgja; 19. glitklæði til embættisgjørðar í helgidóminum, vígsluklæði Arons kénnimanns, og kénnimannabúníngur sona hans.

20. Síðan gékk øll alþýða Israelsmanna út frá Móses, 21. og allir, sem þar til voru lundlagnir og høfðu góðan vilja, komu, og færðu upplyptíngarfórn til Drottins, til að fullgjøra samkundutjaldbúðina með øllu því sem heyrði til þjónustugjørðarinnar, og búa til þau helgu klæði; 22. komu svo allir þeir, sem góðfúst hjarta høfðu, bæði menn og konur, og færðu nasanisti, eyrnagull, hrínga, gulltølur, og allskonar gullbúnað; og eins hvørr maður, sem veifaði gulli til veifunarfórnar fyrir Drottni; 23. og hvørr maður, sem átti í eigu sinni bláa ull, purpura, skarlat, hvíta viðarull, geitahár, rauðlituð hrútaskinn og selskinn, sá bar það fram; 24. og hvørr sem upplypti silfri eða eir í upplyptíngarfórn, sá frambar þá upplyptíngarfórn Drottins, og hvørr sem átti belgþornsvið, hann bar það fram til að gjøra þar af ýmislegt smíði til þjónustugjørðarinnar. 25. Allar þær konur, sem hagar voru, spunnu með høndum sínum, og báru fram spuna sinn úr bláu bandi, purpura, skarlati, og hvítri viðarull; 26. og allar konur, sem þar á voru lundlagnar og høfðu kunnáttu til, spunnu geitahár. 27. En høfðíngjarnir færðu sardonyrsteina og vígslusteina til høkulsins og brjóstskjaldarins, 28. og kryddjurtir og viðsmjør til ljósa, smurníngar viðsmjørs og ilmreykelsis; 29. eins gjørðu allir menn og konur, hvørra hjørtu hneigðust til að láta eitthvað af hendi rakna til framkvæmdar þess verks, sem Guð hafði boðið Móses að gjøra; Israelsmenn færðu Drottni þetta sjálfviljugir.

30. Móses sagði til Israelsmanna: sjáið! Drottinn hefir til kvaðt Besalel Uríson Húrssonar af Júda ættkvísl, 31. og veitt honum guðlega andagift, hagleik, kunnáttu og skilníng til allskonar handiðna, 32. svo að hann er mesti hugvitsmaður á gull, silfur og eir, 33. á steingrøpt, steinsetníng, tréskurð og allskonar hagleiksiðnir. 34. Hann hefir og géfið honum þá gáfu að kénna þetta út af sér; og sama hefir hann veitt Oholíab Akisamakssyni af Dans ættkvísl. 35. Hann hefir veitt þeim gnóglegt hugvit til útskurðar, myndavefnaðar, glitvefnaðar með bláum litum, purpura og skarlati, og til dúkvefnaðar, svo þeir géta gjørt allskonar handiðnir og fundið upp snilliverk af viti sínu.

## 36. Kapítuli.

Gjafir fólksins. Tjaldbúðar smíðið.

1. Besalel og Oholíab og allir þeir hagleiksmenn, sem Drottinn hafði géfið vitsmuni og kunnáttu, að skynja øll þau verk, er heyrðu til helgidómsins þjónustu, gjørðu allt sem Drottinn hafði boðið. 2. Móses kallaði til sín Besalel og Oholíab og alla þá hagleiksmenn, hvørjum Drottinn hafði géfið hugvit, og hvørn þann mann, sem sjálfkrafa vildi gánga að þessu verki og leggja hønd á það; 3. tóku þeir við af Móses allri þeirri upplyptíngarfórn, sem Israelsmenn høfðu lagt til helgidóms gjørðarinnar; og hvørn morgun færðu menn þó enn til hans gjafir sjálfviljuglega. 4. Þá komu allir smiðirnir, sem størfuðu, að helgidóms gjørðinni, hvørr frá sínu verki, sem þeir voru að vinna, 5. og søgðu til Mósis: fólkið leggur til meir en þørf gjørist til að framkoma því verki, sem Drottinn hefir boðið að gjøra. 6. Þá lét Móses kalla út um herbúðirnar, og segja, að eingin skyldi hvørki karl né kona, hafa nokkurn starfa framar fyrir upplyptíngarfórnum til helgidómsins, og hætti fólkið þá tilløgum sínum; 7. var þá gnógt verkefni fyrir þá til alls þess, er gjøra þurfti, og jafnvel var nokkuð afgángs.

8. Allir þeir hagleiksmenn, sem størfuðu að

verkinu, tóku nú til ad gjøra tjaldbúdina: þeir gjørdu 10 dúka af hvítri vidarull twinnadri, blárri ull, purpura og skarlati, med Kerúbum á, haglega útofnum. 9. Hvørr dúkur var 28 álna lángur og fjøgra álna breidur, og allir dúkarnir voru jafnir ad máli; 10. fimm dúkarnir voru teingdir saman sér og aptur adrir 5 sér: 11. þá voru gjørdar lykkjur af bláu ullarbandi á endajadri eins dúksins vid samkomuna, og eins á ytsta dúkjadrinum vid næstu samkomu; 12. 50 lykkjur voru gjørdar á ødrum dúknum, og eins voru gjørdar 50 lykkjur á jadri þess dúksins, sem var vid næstu samkomu, svo ad lykkjurnar stódust á hvør vid adra; 13. þá voru gjørdir 50 krókar af gulli, og teingdur saman hvørr dúkurinn vid annan med krókunum, svo þar af vard ein tjaldbúd.

14. Þarnæst voru gjørdar ábreidur af geitahári, til ad tjalda med yfir búdina; af þeim ábreidum voru búnar til 11; 15. hvør ábreida var 30 álna laung, og fjøgra álna breid; allar 11 ábreidurnar voru jafnar ad máli; 16. þá voru teingdar saman 5 ábreidurnar sér, og 6 sér, 17. gjørdar sídan 50 lykkjur á ytsta ábreidujadrinum vid samkomuna, og eins 50 lykkjur á ábreidujadrinum vid næstu samkomu; 18. þá voru gjørdir 50 eirkrókar til ad teingja saman tjaldid, svo þad yrdi einlægt. 19. Þar ad auki var gjørt þak yfir tjaldid af raudlitudum hrútaskinnum, og enn eitt þak þar utan yfir af selskinnum.

20. Sídan var telgdur beinn bordvidur til tjaldbúdarinnar af belgþornstrjám; 21. var hvørt bord 10 álna lángt, og hálfrar annarar álnar breidt; 22. á hvørju bordi voru tveir tappar, jafnlángt hvørr frá ødrum, og svo var gjørt á øllum bordum tjaldbúdarinnar. 23. Bordvidi tjaldbúdarinnar var svo hagad, ad 20 bord voru sunnanmegin, gégnt sudri, 24. og gjørdir 40 pallar af silfri undir þau 20 bord, tveir pallar undir eitt bordid, til þess þeir tveir tappar, sem á bordinu voru, félli þar í, og eins tveir pallar undir næsta bord, sinn fyrir hvørn tappa. 25. Til annarar hlidar tjaldbúdarinnar gégnt nordri voru ætlud 20 bord, 26. og 40 silfurpallar fyrir þau, nefnilega tveir pallar undir eitt bordid, og tveir undir næsta bord. 27. Til búdargaflsins gégnt vestri voru ætlud 6 bord, 28. en tvø bord til búdarhornanna beggja vegna; 29. þau voru bædi tvøføld nedan frá, og héldu bædi fullu máli upp úr gégn allt til hins fyrsta hríngs; þannig var þeim háttad hvorumtveggjum, og voru þetta þeir tveir horngaflar; 30. þad voru 8 bord med 16 silfurpøllum, stódu tveir pallar undir einu bordinu, og tveir undir því næsta. 31. Því næst voru gjørd þvertré af belgþornsvidi, 5 ad ødrum hlidvegi búdarinnar, 32. og 5 ad hinum, og enn 5 þvertré ad gaflþili búdarinnar vestanmegin. 33. Þá var gjørt midtréd, sem gánga skyldi í gégnum bordveggina, og liggja um þvert frá einum enda til annars. 34. Þá voru gullbúnir bordveggirnir, og hríngarnir í þeim, sem þvertrjánum var smeygt inn í, gjørdir af gulli; þvertrén voru og gulli búin.

35. Sídan var fortjaldid gjørt af døkkblárri ull, purpura, skarlati og hvítri vidarull twinnadri; þar á voru Kerúbar haglega útofnir. 36. Þar til voru gjørdar fjórar stodir af belgþornsvidi, þær voru gullbúnar, med krókum í af gulli, en fyrir stodirnar voru steyptir fjórir pallar af silfri. 37. Tjald var og gjørt fyrir búdardyrnar, þad var af døkkblárri ull, purpura, skarlati og hvítri vidarull twinnadri, og glitofid, 38. fyrir þetta tjald voru gjørdar 5 súlur med krókum í, og gulli búin súlnahøfudin og syllurnar, og 5 eirpallar búnir til undir súlurnar.

## 37. Kapítuli.

Smídud ørkin, arkarlokid, bordid, ljósahjálmurinn og reykelsis altarid.

1. Sídan gjørdi Besalel ørkina af belg-

þornsviði, hún var hálfrar þriðju álnar á lengd, en hálfrar annarar álnar á breidd og hæð; 2. hann gullbjó hana utan og innan með skíru gulli, og bjó til rønd á henni af gulli umhverfis. 3. Hann steypti til arkarinnar fjóra hrínga af gulli, til að setja í fjøgur horn hennar, tvo hrínga annars vegar og tvo hins vegar. 4. Hann gjørdi ása af belgþornsviði, og gullbjó þá, 5. smeygði svo ásunum í þá hrínga, sem voru á hliðvegum arkarinnar, svo bera mætti ørkina á þeim.

6. Þá gjørdi hann lok af skíru gulli, hálfrar þriðju álnar lángt, og hálfrar annarar álnar breidt. 7. Hann bjó til tvo Kerúba úr drifnu gulli á hvorumtveggja loksendanum, 8. var annar Kerúbinn á loksendanum annars vegar, en hinn á hinum endanum, og lét hann Kerúbana vera upp af lokinu á báðum endum þess; 9. þessir Kerúbar voru með útbreiddum vængjum yfir uppi, svo að þeir huldu lokið með vængjunum, en andlit þeirra snéru hvørt í mót øðru og horfðu á lokið.

10. Þá gjørdi hann borðið af belgþornsviði, tveggja álna lángt, álnar breidt, og hálfrar annarar álnar hátt; 11. hann bjó það með skíru gulli, og gjørdi gullrønd umhverfis á því; 12. umhverfis það lagði hann lista þverhandar breiðan, og bjó til rønd af gulli umhverfis á listanum. 13. Hann steypti til borðsins fjóra hrínga af gulli, og setti þá í þau fjøgur horn, sem voru á þeim fjórum fótum borðsins; 14. þessir hríngar voru á samkomumótum listanna, og var þar í smeygt ásum til að bera borðið á; 15. ásana til að bera borðið á, bjó hann til af belgþornsviði og gullbjó þá. 16. Hann bjó til þau kér, er borðinu fylgdu, af skíru gulli, bæði føtin, skálarnar, dreypikérin og bollana, sem til dreypifórnar var haft.

17. Hann gjørdi ljósahjálm af skíru gulli; þann ljósahjálm gjørdi hann af drifverki; møndullinn, liljurnar, skálarnar, knapparnir og laufin voru samgjørvíngar. 18. Sex liljur lágu út frá hjálminum, þrjár liljur annars vegar, og þrjár hins vegar; 19. á einni liljunni voru þrjár skálar, í løgun sem mandelshvolf, með knøppum og laufum: á næstu lilju voru og þrjár skálar, í løgun sem mandelshvolf, með knøppum og laufum; og svo var á øllum 6 liljunum, sem út lágu frá ljósahjálminum. 20. Á sjálfri ljósastikunni voru fjórar skálar, í løgun sem mandelshvolf, með knøppum og laufum; 21. var einn knappur undir tveimur liljunum, og samgjørr við møndulinn, þá annar knappur samgjørr undir tveimur næstu liljum, og þá enn þriðji knappur undir hinum tveimur liljunum, og enn samgjørr; það eru þrír knappar fyrir þær 6 liljur, sem út lágu frá ljósastikunni. 22. Knapparnir og liljurnar voru samgjørvíngar, var það allt gjørt af einlægu drifverki, og af skíru gulli. 23. Hann gjørdi 7 lampa með ljósahjálminum; ljósasøx og skarpønnur, sem honum fylgdu, voru af skíru gulli. 24. Ljósahjálminn með øllum sínum búnaði gjørdi hann af einni vætt skírs gulls.

25. Síðan gjørdi hann reykelsis altarið af belgþornsviði, það var álnar lángt og álnar breidt, ferskeytt, tveggja álna hátt, og horn þess samgjør við altarið. 26. Hann bjó það með skíru gulli, bæði að ofan og á hliðum, og svo horn þess, og gjørdi gullrønd á því allt umhverfis; 27. þar til gjørdi hann tvo hrínga af gulli fyrir neðan røndina, báðumegin á hyrníngum þess, til að smeygja þar í ásum þeim, er altarið skyldi berast á; 28. ásana gjørdi hann af belgþornsviði, og gullbjó þá. 29. Hann bjó og til það helga smurníngarviðsmjør, og hreint ilmreykelsi á kryddara hátt.

## 38. Kapítuli.

Brennifórnar altarið. Forgarðurinn. Reikníngur yfir gull, silfur og eir, sem gékk til smíðisins.

1. Hann gjørdi og brennifórnar altarið af

belgþornsvidi; þad var 5 álna lángt, og 5 álna breidt, jafnt á fjóra vegu, og þriggja álna hátt. 2. Hann gjørdi horn á altarinu upp af fjórum hyrníngum þess, þau horn voru samgjør vid altarid; hann eirbjó þetta altari. 3. Hann gjørdi øll verkfæri, sem altarinu fylgdu, øskutrogin, eldspadana, fórnarskálirnar, sodkrókana, og glódarkérin; øll áhøld þess bjó hann til af eiri. 4. Því næst gjørdi hann um altarid grind af eiri, eins og ridid er net, fyrir nedan altarid undir nidri og allt upp til þess mids. 5. Hann steypti fjóra hrínga, og setti þá í fjøgur horn eirgrindarinnar, til ad smeygja ásunum í þá; 6. en ásana gjørdi hann af belgþornsvidi, og eirbjó þá; 7. hann smeygdi ásunum í hríngana, sem voru á hlidvegum altarisins, svo bera mætti altarid á ásunum; en altarid sjálft gjørdi hann af þiljum, svo þad var holt innan.

8. Því næst gjørdi hann eirkérid, og bjó til undir þad stétt úr eirinu af speiglum kvenna þeirra, sem komu flokkum saman ad samkundubúdar dyrunum.

9. Hann gjørdi og forgardinn; á sudurhlidinni voru lángtjøld forgardsins af hvítri vidarull tvinnadri, hundrad álna; 10. þar til voru 20 stodir og 20 eirpallar, en krókarnir á stodunum og syllurnar yfir þeim voru af silfri. 11. Á nordurhlidinni voru og tíræd lángtjøld med 20 stodum á 20 eirpøllum, en krókarnir á stodunum og syllurnar yfir þeim af silfri. 12. Vestanmegin voru tjøldin fimmtýgir álna, med 10 stodum og 10 pøllum, en krókarnir á stodunum og syllurnar yfir þeim af silfri. 13. Á austurhlidinni mót sólaruppkomustad var 50 álna; 14. þar var annars vegar 15 álna lángt tjald med þremur stodum og þremur pøllum, 15. og hins vegar ødrumegin forgards dyranna var sømuleidis 15 álna tjald med þremur súlum og þremur pøllum. 16. Øll lángtjøld umhverfis um forgardinn voru úr hvítri vidarull tvinnadri, 17. pallarnir undir stodunum af eiri, krókarnir á súlunum og syllurnar yfir þeim af silfri, súlnahøfudin silfurbúin; yfir øllum súlum forgardsins voru silfur-syllur. 18. Fyrir inngánginum til forgardsins var glitofid tjald úr døkkblárri ull, purpura, skarlati og hvítri vidarull tvinnadri, þad var 20 álna á lengd, en 5 álna á hæd eptir dúkbreiddinni, eins og lángtjøld forgardsins voru; 19. þar til heyrdu fjórar stodir og fjórir eirpallar, krókarnir á súlunum voru af silfri, súlnahøfudin silfurbúin, og syllurnar yfir þeim af silfri. 20. Allir naglar, sem til tjaldbúdarinnar og forgardsins voru hafdir, voru af eiri.

21. Þessi er reikníngur yfir tjaldbúdina, þ. e. løgmálsbúdina, saminn eptir fyrirsøgn Mósis med tilhjálp Levítanna af Ítamar, syni Arons kénnimanns. 22. Besalel Uríson Húrssonar, af Júda ættkvísl, hafdi gjørt allt þad, sem Drottinn hafdi bodid Móses. 23. Til adstodar honum var settur Oholíab Akísamaksson af Dans ættkvísl, hann var hagur á steingrøpt, myndavefnad og glitvefnad í døkkbláum dúkum, purpura, skarlati og hvítum vidullar dúkum. 24. Allt þad gull, sem haft var til ad gjøra af allan búnad helgidómsins, og sem greidt var í veifunarfórn, var 29 vættir og 730 siklar, eptir helgidóms vog. 25. Þad silfur, sem alþýdan lagdi til, þá manntalid var tekid, var 100 vættir og 1775 siklar, eptir helgidóms vog; 26. því Beka, edur hálfur sikill eptir helgidóms vog, var goldinn fyrir hvørn þann, sem í manntali vard, frá tvítugu og þar yfir, og þad voru 603550 manns. 27. Þær 100 vættir silfurs voru hafdar til ad steypa úr pallana til helgidómsins og pallana til fortjaldsins, þad voru 100 pallar af 100 vættum, ein vætt á hvørn pall. 28. Af þeim 1775 siklum gjørdi hann súlnakrókana, og silfurbjó

súlnahöfudin, og gjørdi svllurnar ofan á þeim. 29. Eirid, sem géfid var í veifunarfórn, var 70 vættir og 2400 siklar; 30. þar af gjørdi hann pallana til samkundubúdar dyranna, eir-altarid, eir-grindina, sem því fylgdi, og öll á-høld altarisins, 31. pallana til forgardsins allt í kríng, pallana til forgardshlidanna, alla nagla til tjaldbúdarinnar, og allan saum til forgards-ins allt um kríng.

## 39. Kapituli.

*Sá kénnimannlegi skrúdi. Lokid tjaldbúdargjørd-inni.*

1. Af døkkbláu ullinni, purpuranum og skar-latinu gjørdu þeir glitklædin, til embættisgjørd-ar í helgidóminum; og bjuggu til þann helga skrúda handa Aroni, eins og Drottinn hafdi bodid Móses. 2. Hann bjó til høkulinn af gulli, døkkblárri ull, purpura, skarlati, og hvítri vidarull tvinnadri; 3. þeir beittu út gullid í þynnur, en hann skar þynnurnar í þrædi, til ad bregda þeim inn á milli bláa bandsins, pur-purans, skarlatsins, og þeirrar hvítu vidarull-ar, eins og gjört er í myndavefnadi. 4. Þeir gjørdu axlarhlýrana vid høkulinn, svo ad þá mátti festa saman, og voru þeir teingdir sam-an á bádum endum. 5. Høkulbeltid, sem lá utan um høkulinn, var eins vandad, og af sama, af gulli, døkkblárri ull, purpura, skarlati og hvítri vidarull tvinnadri, eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

6. Þeir høfdu og vid sardonyrsteina, sem feldir voru inn í umgjardir af gulli, og grafin á þá med innsiglisgrefti nøfn Ísraelssona; 7. þessa steina, sem voru minnissteinar Ísra-elsmanna, festi hann á axlarhlýra høkulsins, eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

8. Hann bjo til brjóstskjøldinn med hagleg-um útvefnadi, og vandadi hann, eins og høk-ulinn, og gjørdi hann úr gulli, døkkblárri ull, purpura, skarlati, og hvítri vidarull tvinnadri. 9. Brjóstskjøldurinn var ferskeyttur, og gjørdu þeir hann tvøfaldan; hann var spannar lángur og spannar breidur, og tvøfaldur. 10. Þeir feldu í hann fjórar steinaradir; í einni rød-inni var Sardíus, Tópas og Smaragdus: það var fyrsta rødin; 11. í annari rødinni Karbún-kúlus, Saffírus, Demant; 12. í þridju rødinni Ópal, Agat, Ametystus; 13. í fjórdu rød Túr-kos, Sardonyx og Jaspis; voru þeir feldir í gull, hvørr í sinni umgjørd. 14. Á steinun-um voru nøfn Ísraelssona, þeir voru 12, hvørr med sínu nafni; þeir voru grafnir med innsigl-isgrefti, og stód sitt nafn á hvørjum þeirra eptir þeim 12 kynkvíslum. 15. Þeir gjørdu festar til brjóstskjaldarins af skíru gulli, þær voru snúnar, eins og fléttur; 16. þeir gjørdu og tvær umgjardir af gulli og tvo gullhrínga, og þessa tvo hrínga settu þeir á tvø horn brjóst-skjaldarins; 17. brugdu sídan bádum gullflétt-unum um þá tvo hrínga, sem voru í hornum brjóstskjaldarins, 18. en festu báda enda begg-ja fléttanna vid þær tvær umgjardir og festu þær svo vid axlarhlýra høkulsins hvørja gégnt annari. 19. Þá gjørdu þeir enn tvo hrínga af gulli, og festu þá í hin hornin á brjóstskild-inum, innanverdt í þá brúnina, sem ad høkl-inum vissi. 20. Enn gjørdu þeir tvo gull-hrínga, og festu þá nedantil á bádum axlarhlýr-um høkulsins hvørn gégnt ødrum, þar sem mættist høkull og hlýrar, fyrir ofan høkulbelt-id; 21. knýttu sídan brjóstskjøldinn, med sín-um hríngum, vid høkulhríngana med døkkbláum ullardreigli, svo brjóstskjøldurinn lægi fast vid høkulbeltid og losnadi ekki vid høkulinn, eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

22. Sídan gjørdi hann høkulkyrtilinn, hann var ofinn og allur úr døkkblárri ull; 23. á kyrtl-inum var høfudsmát, eins og á línbrynju, og bordi kríngum hálsmálid, ad ekki skyldi rifna

út úr. 24. Á kyrtilfaldinum gjørdu þeir granatepli af døkkbláu ullarbandi, purpura og skarlati tvinnudu; 25. þeir gjørdu og bjøllur af skíru gulli, og festu bjøllurnar allt um kríng millum granateplanna á kyrtilfaldinum, 26. svo ad fyrst kom bjalla og granatepli, og svo aptur bjalla og granatepli allt um kríng á kyrtilfaldinum; þetta skyldi hafa til embættisgjørdarinnar, eptir því sem Drottinn hafdi bodid Móses.

27. Þeir gjørdu og serki handa Aroni og sonum hans; þeir voru ofnir og úr hvítri vidarull; 28. sømuleidis ennidúkinn af hvítri vidarull, og prýdilega høfuddúka af hvítri vidarull, og línbrækur af hvítri vidarull twinnadri, 29. og glitofin belti af hvítri vidarull tvinnadri, døkkblárri ull, purpura og skarlati, eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

30. Sídan gjørdu þeir spaungina á þeim helga dreigli af skíru gulli, og grófu á hana med innsiglisgrefti þessi ord: Heilagt fyrir Drottni; 31. þeir festu vid hana døkkbláan ullardreigil, svo hana mætti láta upp á ennidúkinn, eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

32. Nú var lokid øllu því er vinna þurfti ad samkundutjaldbúdar gjørdinni og høfdu Ísraelsmenn hagad øllu og gjørt allt, eptir því sem Drottinn hafdi bodid Móses. 33. Sídan fluttu þeir búdina til Mósis, tjaldbúnadinn med øllu því sem honum fylgdi, krókana, bordvidinn, ásana, stodirnar, pallana, 34. þakid sem tilbúid var af þeim raudlitudu hrútaskinnum, selskinna þakid, fortjalds dúkana, 35. løgmálsørkina, med hennar ásum og arkarlokid, 36. bordid med øllum þess búnadi, og skodunarbraudin, 37. þann skínanda ljósahjálm med sínum lømpum, þeim lømpum sem í vissri rød skyldu uppsetjast (rødunarlømpunum), ásamt øllu sem hjálminum fylgdi, og vidsmjøri til lýsíngar; 38. gullaltarid, smurníngar vidsmjørid, ilmreykelsid, dyratjald búdarinnar, 39. eiraltarid, eirgrindina, sem því fylgdi, ása þess og øll áhøld, vatnskérid og þess stétt, 40. lángtjøld forgardsins, med hans súlum og pøllum, dyratjald forgardsins, støg þau og nagla, sem þar til heyra, og øll þau áhøld, sem heyra til þjónustugjørdinni í samkundutjaldbúdinni; 41. glitklædi til embættisgjørdar í helgidóminum, vígsluklædi Arons kénnimanns, og kénnimannabúníng sona hans; 42. høfdu Ísraelsmenn unnid ad þessu verki í øllum greinum eptir því sem Drottinn hafdi bodid Móses. 43. Móses leit yfir allt þad, sem þeir høfdu af hendi leyst, og þegar hann sá, ad þeir í alla stadi høfdu gjørt eins og Drottinn hafdi fyrir lagt, þá blessadi hann þá.

## 40. Kapítuli.

Tjaldbúdin er upp sett og vígd.

1. Drottinn mælti vid Móses og sagdi: 2. á fyrsta degi hins fyrsta mánadar skaltu reisa samkundutjaldbúdina; 3. þar skaltu setja løgmálsørkina, og byrgja fyrir ørkina med fortjaldinu. 4. Þú skalt flytja bordid inn, og hagræda því sem þar til heyrir; sídan skaltu færa þángad ljósahjálminn, og kveykja á lømpunum. 5. Þú skalt setja þad gullna reykelsisaltarí fyrir framan løgmálsørkina, og tjalda fyrir búdardyrnar. 6. Þú skalt setja brennifórnar altarid fyrir framan samkundutjaldbúdar dyrnar; 7. vatnskérid skaltu setja milli samkundutjaldsins og altarisins, og láta vatn þar í. 8. Sídan skaltu reisa forgardinn umhverfis, og tjalda fyrir forgardsdyrnar. 9. Þá skaltu taka smurníngar vidsmjørid, og smyrja búdina og allt innan búdar, og vígja hana med øllum hennar búnadi, og skal hún þá vera heiløg. 10. Þú skalt smyrja brennifórnar altarid og øll þess áhøld; þú skalt vígja altarid, og skal altarid þá vera alheilagt. 11. Þú skalt smyrja vatnskér-

id og slétt þess, og vígja það. 12. Þá skaltu leida Aron og sonu hans ad samkundutjaldsdyrunum, og þvo þá úr vatni, 13. færa Aron í vígslukljædin, smyrja og vígja hann, og skal hann þá vera minn kénnimadur. 14. Þú skalt og leida fram sonu hans, og færa þá í serkina, 15. og smyrja þá, eins og þú smurdir fødur þeirra, og skulu þeir þá vera mínir kénnimenn; og skal smurníngin ávallt afreka þeim og þeirra eptirkomendum hid kénnimannlega embætti.

16. Móses gjørdi í øllum greinum eptir því sem Drottinn hafdi bodid honum. 17. Búdin var reist á ødru árinu þann fyrsta dag hins fyrsta mánadar: 18. reisti Móses búdina, lagdi pallana, sló upp þiljunum, setti í ásana og reisti upp súlurnar; 19. hann spennti tjaldvodina yfir búdina, og lagdi tjaldþøkin þar ofan yfir, eins og Drottinn hafdi bodid honum. 20. Hann tók løgin, og lagdi þau í ørkina, setti ásana í ørkina, og lét arkarlokid yfir ørkina; 21. hann flutti ørkina inn í búdina, setti upp fortjaldsvodina og byrgdi fyrir løgmálsørkina, eins og Drottinn hafdi bodid honum. 22. Hann setti bordid inn í samkundutjaldid vid nordurhlid búdarinnar fyrir framan fortjaldid., 23. og radadi þar á braudunum frammi fyrir Drottni, eins og Drottinn hafdi bodid honum. 24. Hann setti upp ljósahjálminn í samkundutjaldinu gégnt bordinu vid sudurhlid búdarinnar, 25. og kveykti á lømpunum frammi fyrir Drottni, eins og Drottinn hafdi bodid honum. 26. Hann setti upp gullaltarid inni í samkundutjaldinu gagnvart fortjaldinu, 27. og tendradi ilmreykelsi á því, eins og Drottinn hafdi bodid honum; 28. Sídan lét hann dyratjaldid fyrir búdardyrnar, 29. og setti brennifórnar altarid vid samkundutjaldbúdar dyrnar, og fórnadi þar á brennifórn og matarfórn, eins og Drottinn hafdi bodid honum. 30. Hann setti vatnskérid milli samkundutjaldsins og altarisins, og lét þar í vatn til ad þvo sér úr; 31. og þvodu þeir Móses, Aron og synir hans úr því hendur sínar og fætur, 32. þá þeir gengu inn í samkundutjaldid; og þegar þeir nálægdu sig altarinu, skyldu þeir og þvo sér, eptir því sem Drottinn hafdi bodid Móses. 33. Sídan reisti hann forgardinn umhverfis um búdina og altarid, og lét dyratjaldid fyrir forgardshlidid, og hafdi Móses þá lokid þessu starfi. 34. Þá huldi skýid samkundutjaldid, og dýrdin Drottins fyllti búdina; 35. og gat Móses ekki gengid inn í samkundutjaldid, því skýid lá yfir tjaldinu og dýrdin Drottins fyllti búdina. 36. En er skýid hófst upp frá búdinni, þá løgdu Ísraelsmenn upp ávallt medan þeir voru á ferdalagi sínu; 37. en þegar skýid hófst ekki upp, løgdu Ísraelsmenn ekki af stad, fyrr enn þann dag ad skýid hóf sig upp: 38. því ský Drottins var yfir búdinni um daga, en um nætur skein þad sem eldur í augsýn allra Ísraelsmanna, ávallt medan þeir voru á ferdalagi sínu.]

# LEVITICUS.

## Þridja Bók Mósis.

### 1. Kapítuli.

*Løgmál um brennifórnir.*

1. Gud kalladi á Móses og taladi vid hann úr samkundu-tjaldbúdinni þannig: 2. Tala þú til Israelsbarna og seg þú þeim, ad ef einhvør þeirra vill færa Drottni fórn, af fénadi, þá skal sú fórn hans vera af nautpeníngi, saudfé eda geitfé. 3. Sé þad brennifórn af stórfénadi, skal þad vera naut karlkyns lítalaust; hann skal leida þad til dyra samkundu-tjaldbúdarinnar, svo þad afli honum Drottins hylli. 4. Hann leggi hønd sína á høfud brennifórnarinnar, ad hún verdi Drottni velþóknanleg og forlíki fyrir hann. 5. Hann slátri sídan úngneytinu fyrir augliti Drottins, en prestarnir, synir Arons skulu frambera blódid og støkkva því um kríng á altari þad, sem stendur fyrir dyrum samkundu-tjaldbúdarinnar; 6. þar eptir flái hann brennifórnina og høggvi sundur í viss stikki, 7. en synir Arons Prests skulu gjøra eld á altarinu og leggja vid yfir eldinn. 8. Þará eptir skulu synir Arons, prestarnir, rada stikkjunum, høfdinu og mørnum ofaná vidinn, sem lagdur er ad eldinum, sem er á altarinu. 9. Innislin og fæturnir skulu þvost í vatni, en presturinn skal uppbrenna allt þad, sem á altarinu er. Þvílík fórn er fórn sætleiks ilms fyrir Drottni. 10. Ef þad sem til fórnar gáfu er ætlad, er af saudfé eda geitfé, þá komi hann med þad sem er karlkyns og lítalaust; 11. Hann slátri því nordanmegin vid altarid fyrir augliti Drottins, en prestarnir, synir Arons, støkkvi blódinu í kríng á altarid; 12. hann hluti þad í sundur og presturinn radi því ásamt høfdinu og mørnum ofaná vidinn, sem lagdur er ad eldinum, sem á altarinu er. 13. Innislin og fæturnar skal hann þvo í vatni, en presturinn frambera þad allt og upptendra á altarinu. Þvílík eldfórn er fórn sætleiks ilms fyrir Drottni. 14. En ef madur vill færa Drottni brennifórnar gáfu, af fuglum, þá sé hún af turtildúfum eda úngum dúfum. 15. Presturinn skal bera fuglinn til altarisins, snúa úr hálslidnum og upptendra á altarinu, en kreista út blódid á hlid altarisins; 16. hann taki burt innislin med saurnum, sem í þeim er, og kasti þeim vid austurhlid altarisins, þar sem askan er látin. 17. Hann skal kljúfa fuglinn milli vængjanna, en skipta honum þó ekki í sundur og svo skal presturinn upptendra hann á altarinu, ofaná vidnum, sem lagdur er ad eldinum. Þvílík brennifórn er fórn sætleiks ilms fyrir Drottni.

### 2. Kapítuli.

*Um matfórnir.*

1. Ef nokkur er, sem færa vill Drottni matfórn, þá skal sú fórnargáfa vera af hveiti-

V. 4. Med ad leggja hønd á høfud fórnardýrsins helgadi hann þad Gudi og medkéndi ad hann væri hans nádar þurfi. V. 5. Fyrir augliti Dr: þ. er: fyrir dyrum samkundu-tjaldbúdarinnar. V. 9. 1. Mós. 8. 21. V. 16. taka burt innislin þ. e: menn fórnfærdu ekki ødru enn því sem var manna fæda. V. 1. Matfórn kallast einúngis þær fórnir, sem voru af jardar-avøxtum, en þegar lifandi skepnum var fórnfært kalladist þad ekki matfórn, þó prestarnir og þeirra heimilisfólk æti nokkud þar af.

mjøli, og skal hann hella þar yfir vidsmjøri, og leggja þar ofaná reykelsi, 2. færa þad svo prestunum, sonum Arons; en presturinn skal taka fullan knefa sinn af hveitinu og vidsmjørinu ásamt med øllu reykelsinu, og gjøra þaraf upptendran, minníngarfórn á altarinu. Þvílík fórn er eldfórn sætleiks ilms fyrir Drottni. 3. Leifar fórnarinnar tilheyra Aron og sonum hans, og eru þær háheilagar á medal eldfórna Drottni færdra.

4. En viljir þú færa Drottni matfórn af því sem bakad er í ofni, þá séu þad ósýrdar hveitimjøls køkur, smurdar med vidsmjøri og þunnir ósýrdir leifar døggvadir med vidsmjøri. 5. En ef matfórn þín er af því, sem bakad er á pønnu, þá skal þad vera ósýrt af hveitimjøli, døggvad med vidsmjøri. 6. Þú skalt brjóta køkuna í mola og hella yfir vidsmjøri, þá er þad matfórn. 7. En ef ad þín fórnargáfa er tilbúin af því, sem í katli er sodid, þá sé þad af hveitimjøli meingudu med vidsmjøri, 8. og þá gáfu, sem af þessu er tilbúin handa Drottni skaltu frambera og færa prestinum; en hann skal bera hana til altarisins, 9. og upplypta nokkrum parti hennar til minníngarfórnar og upptendra á altarinu. Þvílík eldfórn er fórn sætleiks ilms fyrir Drottni. 10. Leifarnar tilheyra Aron og sonum hans, og eru þær háheilagar af Drottins eldfórnum.

11. Einga matfórn sem þér færid Drottni skulud þér sýra, því ekkért súrdeig eda húnáng skal vera í þeirri eldfórn, sem þér Drottni færid, 12. en í frumgróda fórnum meigid þér færa þad Drottni, en á altarid má þetta ekki koma til sætleiks ilms.

13. Sérhvør matfórn skal med salti saltast; þú skalt ekki láta vanta ad strá salti sáttmálans vid þinn Drottinn yfir þína matfórn, med øllum þínum gáfum skaltu frambera salt.

14. Ef þú vilt frambera fyrir Drottinn gáfu af jardar-ávaxtanna frumgróda, þá skal sú gáfa er þú framber af jardar-ávaxtanna frumgróda vera þurkad vid eld, mulid korn. 15. Þú skalt hella þará vidsmjøri og láta þarofaná reykelsi. Þad er rétt matfórn. 16. Af nokkrum hluta þess mulda korns og vidsmjørsins, og øllu reykelsinu skal presturinn gjøra upptendran, minníngarfórn, eldfórn Drottni til dýrdar.

## 3. Kapítuli.

### Um þakklætis-fórnir.

1. En ef nokkur framber þakklætisfórn og þad er af nautpeníngi, hvørt sem þad er karlkyns eda kvenukyns, þá sé þad lítalaust, sem hann framleidir fyrir Drottinn. 2. Hann leggi hønd sína á høfud fórnarinnar og slátri henni fyrir framan dyr samkundu-tjaldbúdarinnar, en prestarnir, synir Arons, støkkvi blódinu í kríng á altarid. 3. Hann láti þar á eptir þakklætisfórnina, sem eldfórn koma á altarid fyrir Drottinn, alla netjuna og allan mørinn, sem innislin eru vafin í, 4. bædi nýrun og nýrmørinn allann, sem er yfir ristlinum, og stærralifrar bladid, sneidi hann burt med nýrunum. 5. Synir Arons skulu upptendra þetta á altarinu, ofaná brennifórninni, sem liggur yfir þeim vid, er lagdur er ad eldinum, og er þetta eldfórn sætleiks ilms fyrir Drottni.

6. En ef gáfa nokkur til þakklætisfórnar Drottni er af smáfénadi, hvørt sem hún er af karlkyni eda kvennkyni, þá skal þad, sem hann

---

V. 2. Minníngarfórn, því hún átti líka sem minna Gud á þann fórnfærandi og minna hann sjálfann á hvørsu hann væri uppá Gud kominn. V. 10. Ei nema nokkud af fórnum þessum og fleirum var brennt á altarinu; hitt tilheyrdi prestunum og þad af þeim sem þeir borda áttu á helgum stad (þ. e. innan musterisins vebanda) var eins heilagt eins og þad, sem á altarinu var brennt.

frankémur med, vera lítalaust. 7. Sé þad úng saudkind, sem hann kémur med sem gáfu, þá leidi hann hana fram fyrir Drottinn, 8. leggi hønd sína á høfud fórnardýrsins, slátri því fyrir framan samkundu-tjaldbúdina, en synir Arons støkkvi blódinu um kríng á altarid; 9. þarnæst skal hann af þakklætisfórninni framkoma fyrir Drottinn med mørinn, rófuna alla uppundir hriggjarlidi, alla netjuna og allan mørinn, sem inniflin eru vafin í, 10. bædi nýrun og nýrmørinn allann sem er í grend vid ristilinn og stærra lifrar-bladid er hann sneidi burt med nýrunum. 11. Þetta skal presturinn upptendra á altarinu, svo sem fædu, eldfórn fyrir Drottinn.

12. En ef nokkurs fórnargáfa er af geitfénadi, skal hann framkoma med hana fyrir Drottinn, 13. leggja hønd sína á høfud fórnardýrsins og slátra því fyrir framan samkundu-tjaldbúdina, en synir Arons skulu støkkva blódinu um kríng á altarid. 14. Þar eptir skal hann af fórnargáfu sinni fram koma fyrir Drottinn med alla netjuna og allan mørinn í hvørjum inniflin eru vafin, 15. bædi nýrun og nýrmørinn allann sem er yfir ristlinum, og stærra lifrarbladid, sem burtsneidist med nýrunum; 16. en presturinn skal uppbrenna þetta á altarinu svo sem fædu, eldfórn til sætleiks ilms, því øll feiti tilheyrir Drottni. 17. Þetta skal vera ævarandi løgmál hjá ydar kynslód, hvar helst sem þér verdid, ad þér hvørki skulud eta feiti né blód.

## 4. Kapítuli.

Um synda-fórnir.

1. En framar taladi Drottinn þannig til Móses: 2. Seg þú Israels nidjum, ad ef nokkur af vangjætslu syndgar í gégn nokkru bodordi Drottins og gjørir eitthvad, sem hann ekki má gjøra. 3. Ef ad sá smurdi prestur syndgar fólkinu til synda sektar, þá skal hann vegna þeirrar syndar, sem hann hefir drýgt, framkoma fyrir Drottinn med lítalaust úngneyti; 4. med þetta úngneyti skal hann koma til dyra samkundu-tjaldbúdarinnar, fyrir auglit Drottins, og leggja hønd sína á høfud úngneytisins og slátra því fyrir augliti Drottins, 5. og enn smurdi prestur skal taka nokkud af blódi úngneytisins og fara med þad til samkundu-tjaldbúdarinnar 6. og dýfa vísifíngur sínum í blódid og støkkva því sjø sinnum frammi fyrir Drottni, anspænis fortjaldi helgidómsins; 7. og presturinn skal rjóda nokkru af blódi úngneytisins á húna þess sættilmandi reykelsis altaris, sem er frammi fyrir Drottni í samkundu-tjaldbúdinni, en øllu hinu blódi úngneytisins skal hann hella nidur hjá brennifórnar altarinu, sem er fyrir framan samkundu-tjaldbúdar dyrnar; 8. Þar á eptir skal hann nema burt, og upplypta øllum mør syndafórnar uxans, bædi netjunni og øllum garnmørnum, 9. hvørutveggju nýrunum og nýrmørnum øllum sem er í grend vid ristilinn, og stærra lifrarbladinu sem afsneidist med nýrunum, 10. allt eins og gjørt var vid þakklætisfórnar nautid, ad því búnu skal presturinn gjøra þar af upptendran á brennifórnar altarinu. 11. En skinn úngneytisins og allt kjøtid ásamt høfdinu og fótunum, inniflunum og saurindunum, 12. og allt annad af nautinu, skal hann bera útfyrir herbúdirnar, á hreinan stad, þar sem menn plaga ad láta øskuna, og upp-

V. 9. Rófuna: I austurløndum hefir viss tegund saudfénadar lánga og digra rófu, sem er tóm fita, og vegur stundum jafnvel 2 fjórdúnga. Þad feitasta af fórnardýrum var ætíd brennt á altarinu. A milli 2 og 3 vers undirskilst: þá ber honum ad afplána synd sína med fórn. V. 6. Fortjaldid adgreindi þad helgasta frá því allrahelgasta í samkundu-tjaldbúdinni 2 Mós: 26, 31. Fyrir innan þetta fortjald var Sáttmáls-ørkin, yfir hvørs loki (nádarstólnum) Drottinn einkanlegast þeinktist búa, og líkasem horfa á allt þad sem framfór í samkundu-tjaldbúdinni sjálfri og fyrir utan dyr hennar; þad skédi því fyrir hans augliti.

brenna þad á vidi í eldi; ofan á øskuhaugnum
á þad ad brennast.
13. En ef allur Ísraels lýdur skyldi missjá
sig, og þad er hulid fyrir søfnudinum ad menn
hafa gjørt eitthvad ámóti Drottins bodum og
ordid þarvid sekur, 14. þá skal søfnudurinn,
þegar syndin er ordin uppvís framleida úngneyti
til syndafórnar og leida þad framfyrir samkundu-
tjaldbúdina; 15. og øldúngar safnadarins skulu
leggja hendur sínar á høfud úngneytisins frammi
fyrir Drottni og slátra úngneytinu fyrir hans
augsýn, 16. og hinn smurdi prestur skal bera
nokkud af blódinu inní samkundu-tjaldbúdina, 17.
og dýfa vísifíngri sínum í þetta blód og støkkva
því sjøsinnum framfyrir Drottni, anspænis for-
tjaldi helgidómsins; 18. sømuleidis skal hann
rjóda húna þess altaris, sem er fyrir augliti
Drottins í því helga musterisins, en øllu því sem
eptir er af blódinu skal hann hella nidur hjá
brennifórnar altarinu, sem er fyrir framan sam-
kundu-tjaldbúdar dyrnar; 19. en allri feitinni
skal hann upplypta og upptendra á altarinu, 20.
og ad øllu leiti fara eins med þetta naut, eins
og fara átti med hitt syndafórnar nautid. Þann-
ig skal presturinn forlíka fyrir fólkid, og þad
mun fá fyrirgéfníngu. 21. Þaráeptir skal hann
bera uxann útfyrir herbúdirnar og uppbrenna
hann, eins og hann uppbrendi þann fyrrumgétna
uxa. Þetta er rétt syndafórn fyrir søfnudinn.
22. En ef einhvør høfdíngi syndgar og gjør-
ir eitthvad, sem Gud Drottinn hefir í sínum
løgum bannad, og ekki átti ad gjørast og af van-
gjætslu er ordinn sekur, 23. þá ef einhvør minn-
ir hann á synd hans, sem hann hefir drýgt, skal
hann framkoma med gáfu, kjarnhafur, sem er
án lýta, 24. leggja sína hønd á høfud hafurs-
ins og slátra honum á þeim stad, hvar slátrast
eiga brennifórnir fyrir augliti Drottins. Þetta
er rétt forlíkunar fórn. 25. Sídan skal prestur-
inn taka nokkud af blódi syndafórnarinnar og
med vísifíngri sínum rjóda med því húna brenni-
fórna-altarisins, en hella því sem eptir er af blód-
inu vid hlid þess; 26. en alla feitina skal hann
upptendra á altarinu, eins og feiti þakklætis fórn-
arinnar. Þannig skal presturinn afplána synd
hans og hún mun honum fyrirgéfast.
27. En ef einhvør almúgamadur landsins
syndgar af vangjætslu og gjørir eitthvad sem
bannad er í Drottins bodordum, og ekki átti
ad gjørast, og verdur þar vid sekur, 28. þá
skal hann þá hann fær þekkta þá synd, er
hann hefir drýgt, framkoma med sína gáfu
fyrir þá synd, sem hann hefir drýgt, nefnilega:
med geit, sem er án lýta. 29. Hann skal legg-
ja hønd sína á høfud syndafórnarinnar og slát-
ra henni þar sem brennifórnum er slátrad. 30.
Sídan skal presturinn taka nokkud af blódinu
á sínum vísifíngri og rjóda því á húna brenni-
fórna altarisins, en blódinu, sem eptir er, skal
hann hella vid hlid þess; 31. en alla feiti skal
hann burtnema, líka sem hún burtnumin var
af þakklætisfórninni, og presturinn skal upp-
brenna hana til sætleiks ilms fyrir Drottni.
Þannig skal presturinn afplána synd hans, og
hún mun fyrirgéfast honum. 32. Ef hann vill
frambera saudkind til syndafórnar, þá sé þad
lítalaus gimbur, sem hann kémur med. 33.
Hann leggi hønd sína á høfud syndafórnarinn-
ar og slátri henni sem syndafórn á þeim stad,
hvar menn slátra brennifórnum. 34. Þar ept-
ir skal presturinn taka nokkud af blódinu á vísi-
fíngri sínum og rjóda med því húna brenni-
fórna altarisins, en øllu hinu blódinu skal hann
hella nidur vid hlid þess. 35. En alla feiti

V. 14. sbr: 1 Sam: 14, v. 23. ff. V. 18. Þad altari sem hér er meint til, er reykelsis-altarid (2 Mós. 30, 1 — 6. 40, 5. 26, 27) sem stód í því helgasta musterisins. 22. Høfdíngi nefnil: ættkvíslanna (øldúngur); máské høfdíngi innibindi hér í sér líka adra embættismenn, ad undanteknum prestum.

skal hann burtnema, líka sem burtnumin var feiti gimbrar þeirrar, er til þakklætisfórnar var høfd, og skal presturinn upptendra hana á altarinu í Drottins eldi, og þannig afpláta synd þá, sem hann hefir drýgt, og mun hún fyrirgéfast honum.

## 5. Kapítuli.

Um sektafórnir.

1. Syndgi nokkur í því, ad þó hann heyrt hafi þad sem formæling er vid løgd, og hann er vitni, hann samt ekki vill opinbera þad, sem hann hefir sjed eda veit, þá skal hann þarfyrir bera sína misgjørd; 2. ellegar ef nokkur snertir einhvørn óhreinan hlut, eda hræ óhreins skógardýrs eda hræ óhreins fénadar eda skridkvikindis, þó þad sé honum hulid, þá er hann ordinn óhreinn og sekur; 3. eda ef hann snertir óhreinan mann, hverrar tegundar sem óhreinleikinn er, sem menn verda óhreinir af, þá, þegar hann kémst ad því, þá er hann ordinn sekur; 4. eda láti nokkur í brádrædi falla sér eid af munni (eins og mørgum er tamt ad þeir flapra út eidum) hvørt heldur hann midar til ills eda góds, og þad var honum óvitanlegt, en fær þad sídan ad vita, þá er hann ordinn sekur; 5. — verdi nokkur sekur fyrir eitthvad þesshа́ttar, þá skal hann vidurkénna ad hann hafi syndgad þar med, 6. og fyrir þá synd, sem hann hefir drýgt, skal hann framkoma med sektafórn fyrir Drottinn; hún skal vera kvennkyns af smáfénadi, gimbur eda geit til synda forlíkunar, og skal presturinn þar med afpláta hans synd. 7. En ef hann á ekki fyrir kind, þá skal hann til sektafórnar fyrir þá synd, sem hann hefir drýgt, koma fram fyrir Drottinn med tvær turtildúfur, eda tvo dúfuúnga, annan til syndafórnar, en hinn til brennifórnar. 8. Hann skal fá fuglana prestinum, sem fyrst framberi þann er til syndafórnar er ætladur, snúi hann úr hálslidnum, en slíti þó ekki høfudid frá búknum; 9. støkkvi nokkru af blódi syndafórnarinnar á hlid altarisins, en þad sem eptir er af því, kreisti hann út og láti drjúpa nidur hjá altarinu. Þetta er syndafórn. 10. En hann skal fara med hinn fuglinn sem brennifórn (1, 14. fylg.), og þannig forlíka fyrir synd þess, sem hefir misbrotid, og hún verdi honum fyrirgéfin. 11. En ef þessi ekki á fyrir 2 turtildúfum eda dúfuúngum, þá skal hann samt, vegna þess hann hefir syndgad, frambera sem gáfu til synda afplánunar tíunda part af Efa af hveiti-mjøli, en hvørki bæta þar vid vidsmjøri né reykelsi; því þad er syndafórn. 12. Hann skal færa mjølid prestinum, sem taka skal af því knefa sinn fullan til minníngarfórnar og gjøra þar af upptendran á altarinu í eldi Drottins. Þetta er rétt syndafórn; 13. og presturinn skal þannig forlíka fyrir þá synd, sem hann einhvørnvegin þannig hefir drýgt, ad hún verdi honum fyrirgéfin. En þad sem eptir er tilheyrir prestinum svo sem ønnur matfórn.

14. En framar sagdi Drottinn til Móses: 15. Ef nokkur stórlega misbrýtur og syndgar af vangjæslu gégn helgidómi Drottins, hann skal færa Drottni í sektafórn lýtalausan hrút, tekinn af hjørdinni, eins margra silfur-sikla virdi, eptir helgidóms sikla gildi, eins og þú metur í sektina, 16. og þad sem hann hefir dreigid undir sig af helgum hlutum, skal hann ad fullu bæta, og gjalda einn fimta part ad

V. 1. sbr. Sal. Ordskv. 29, 24. bera misgjørd þ. e. vera straffssekur, þar til hann hefir med sektafórn afplánad synd sína. V. 10. Sjá K. 1. v. 14. ff. V. 11. Efa, hérumbil hálft kvartil 2 Mós. 16, 36. Vidsmjør og reykelsi var dýrt, en mjøl ódýrt, þessvegna fátækum hægast ad gjalda mjøl. V. 12. Minníngarfórn sjá K. 2, 3 skýr. V. 15. Syndgar af vangjæslu t. d. forsómar ad koma med frumgróda fórn, dregur af tíund o. s. fr.

auk. Þetta skal hann færa prestinum, og hann skal afplána syndasekt hans med hrútnum, ad hún verdi honum fyrirgéfin.

17. Ef nokkur misbrýtur og gjørir eitthvad þad, sem bannad er í einhvørju Drottins bodordi og veit ekki af því ad hann verdur (þar vid) sekur, og þannig ber sína misgjørd, 18. þá skal hann taka lýtalausan hrút af hjørdinni, sem þú verdleggur, og færa hann prestinum til sektafórnar, og presturinn skal afplána yfirsjón þá, er hann í vanvitsku gjørdi sig sekann í, og hún mun þá verda honum fyrirgéfin. 19. Þetta er sektafórn; (því) hann var fallinn í fulla sekt vid Drottinn.

20. En framar sagdi Drottinn vid Móses: 21. Ef nokkur syndgar og stórlega misbrýtur á móti Drottni, med því ad hann vid sinn náúnga geingur á móti því sem honum hefir verid trúad fyrir, eda honum hefir verid feingid til geymslu, eda hann hefir rænt, eda hann á annan hátt hefir haft af ødrum, 22. ellegar hann hefir fundid þad, sem hinn hafdi mist og hefir logid í tilliti til þess, og stadfest med eidi lýgina, vidvíkjandi einhvørju þesshátttar sem menn gjøra og syndga sig á, 23. þá skal sá sem syndgar og verdur sekur á þenna hátt, skila því aptur, sem hann hefir rænt, eda haft af ødrum, eda hefir haft til geymslu, og því tínda, sem hann hefir fundid, 24. og øllu því um hvad hann hefir ránglega svarid, og hann skal bæta þad ad fullu, skila aptur þeim sem átti fullu verdi og leggja fimta part yfir, og þad samdægris, sem hann framber sína sektafórn. 25. En sú sektafórn, sem hann skal færa Drottni er hrútur lýtalaus, tekinn af hjørdinni, sem skal færast til prestsins, þegar þú ert búinn ad meta hann; 26. og presturinn skal þá forlíka fyrir synd hans fyrir augliti Drottins, og þá mun hún fyrirgéfast honum, hvad helst þessa, sem hann hefir framid sér til sekta.

# 6. Kapítuli.

Um þær daglegu brennifórnir og eldinn á altarinu er aldrei mátti slokna. Matfórnir prestanna. Forlíkunar fórnir er etast meiga af prestunum.

1. En framar taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 2. Géf þú Aron og sonum hans þetta løgmál um brennifórnir: Brennifórnin skal vera alla nóttina til byrtíngar yfir eldi þeim sem á altarinu brennur, er skal haldast lifandi á því. 3. Presturinn skal þá færa sig í sín lín-klædi og draga sínar línbrækur á sig til ad hylja sína blygdan; sídan skal hann upptaka øskuna, sem er eptir brennifórnina, er eldurinn hefir eydt á altarinu, og steypa henni nidur vid hlid altarisins. 4. Þar eptir skal hann afklædast þessum klædum og íklædast ødrum og bera øskuna út fyrir herbúdirnar á hreinan stad. 5. En eldurinn skal á altarinu brenna og aldrei sløkkna, og presturinn skal árla á sérhvørs dags morgni leggja vid ad eldinum og rada brennifórninni ofan á vidinn og þar yfir upptendra feiti þakklætisfórnanna. 6. Eldurinn skal sífeldt brenna á altarinu, og aldrei sløkkna.

7. En þannig hljódar løgmálid um matfórnir: synir Arons skulu bera þad fram fyrir auglit Drottins fyrir altarid, 8. og einn þeirra skal taka knefa fullann af hveitimjøli og vidsmjøri matfórnarinnar, og allt reykelsid, sem fylgir henni, og upptendra á altarinu Drottni til sætleiks ilms, til minníngarfórnar fyrir Drottinn; 9. en þad sem eptir er af matfórninni skal Aron og synir hans eta. Osýrt skal þad etast á helgum stad; í forgardi samkundu-tjaldbúdarinnar skulu þeir eta þad; 10.

V. 25. Móses átti ad meta hvort fórnin væri í lagi, adur enn hún til musterisins var færd. V. 9. Eta þ. e. þad skal vera prestanna tekja þeim til uppeldis; adrir en prestarnir máttu ekki snerta þad, því sídur eta. sjá Skýr. vid K. 2 v. 10.

þad má ekki bakast med súrdeigi; þad er þeirra hluti, sem eg géf þeim af því, er brennast átti í mínum eldi; þad er háheilagt, eins heilagt og syndafórnir og sektafórnir. 11. Allt karlkyns af Arons sonum má eta þar af; þad er sá hluti af Drottins fórnum, sem eilíflega er ánafnadur ydar ætt; en sá verdur ad vera vígdur sem snertir hann.

12. En framar taladi Drottinn til Móses og sagdi: 13. Sú fórnargáfa sem Aron og hans synir skulu bera Drottni á vígsludeginum, er: tíundi partur Efa af hveitimjøli, helmíngurinn skal frambera árla morguns, en hinn helmíngurinn ad kvøldi dags. Þetta skal vera (þeirra) støduga fórnargáfa. 14. Hún skal matreidast, eltast og snúast í vidsmjøri á steikara-pønnu, og þannig bakada í molum skaltu framkoma med þína matfórn, færa hana Drottni til sætleiks ilms. 15. Sá af sonum Arons sem vígdur verdur til prests í hans stad, skal tilbúa hana. Þad er ægildandi reglugjørd Drottins, ad hún øllsaman brennist. 16. Sérhvørs prests matfórn skal þannig medfarast; hún má ekki etast.

17. En framar sagdi Drottinn til Móses: 18. Þetta bodord skaltu géfa Aron og sonum hans um syndafórnina: ad á þeim stad sem brennifórnin slátrast skuli og syndafórnin slátrast fyrir augliti Drottins, og er hún háheiløg fórn. 19. Presturinn sem framber syndafórnina skal eta hana; á helgum stad á hún ad etast, í forgardi samkundu-tjaldbúdarinnar; 20. og hvør sá sem snertir kjøt hennar á ad vera vígdur. En ef nokkud af blódi syndafórnarinnar spítist á klædi hans, þá skal hann þvo þad burt á helgum stad; 21. en leirkérid sem hún hefir verid sodin í, skal brjótast, en ef hún hefir verid sodin í koparpotti, skal potturinn fægjast og sídan þvost í vatni. 22. Sérhvør karlkyns af presta ætt má eta þaraf, þó þad kjøt sé háheilagt. 23. En eingi syndafórn, af hverrar blódi nokkud er innborid í samkundu-tjaldbúdina til forlíkunar í helgidóminum, má etast, heldur á ad uppbrennast í eldi.

## 7. Kapítuli.

*Nákvæmari reglugjørdir um ímsar fórnir.*

1. Þannig hljódar løgmálid um sektafórnina, og er hún háheiløg. 2. Á sama stad sem menn slátra brennifórnum eiga sektafórnir ad slátrast og blódinu á ad støkkva allt í kríng á altarid. 3. Alla feitina af þeim á haun ad frambera, nefnilega rófuna og mørinn sem innislin eru vafin í, 4. bædi nýrun, og nýrmørinn allan sem er í grend vid ristilinn og stærra lifrar bladid er sneidist burt med nýrunum. 5. Í þessu skal presturinn kveikja á altarinu, sem eldfórn fyrir Drottinn; þetta er sektafórn. 6. Sérhvør karlkyns af prestunum má eta þaraf; á helgum stad á þad ad etast, því fórnin er háheiløg.

7. Um syndafórnir gildir sama løgmál sem sektafórnir; hvørutveggja tilheyrir prestinum, sem forlíkar med þeim, 8. og þeim presti, sem framber nokkurs manns brennifórn, honum skal tilheyra skinnid af þeirri brennifórn sem hann frambar. 9. Sømuleidis skal sérhvør matfórn, hvørt heldur hún er bøkud í ofni, ellegar tilbúin í potti eda pønnu vera prestsins sem frambar hana; 10. en sérhvør (ønnur) matfórn hvørt heldur hún er ádreifd vidsmjøri eda þur, skal tilheyra øllum sonum Arons, einum ekki framar enn ødrum.

11. En þannig hljódar løgmálid um þakklætisfórnir, er menn færa kunna Drottni: 12. Ef menn vilja til lofgjørdar frambera fórn, þá skulu menn ásamt lofgjørdar fórninni frambera ósýrdar køkur døggvadar vidsmjøri og ósýrda

V. 19. Eptir ad musterid var byggt af Salomóni Kóngi vóru þessar veitslur haldnar í solum er byggdir vóru í musterisins forgardi. V. 11. Þakklætisfórn er sú fórn er framberst sem þakklætis merki fyrir af Gudi þáda velgjørninga.

leifa smurda med vidsmjøri og hveitimjøls køkur bakadar á rist døggvadar vidsmjøri. 13. Ásamt med køkunnm skal hann frambera sem fórnargáfu sýrt braud, er fylgja skal lofgjørdar fórn hans. 14. Hann skal frambera af allri gáfunni eina køku til upplyptíngar fyrir Drottni; en hitt skal vera prestsins sem støkkt hefir þakklætisfórnar blódinu; 15. En kjøt hans lofgjørdar og þakklætis fórnar skal etast á þeim sama degi, sem hann kom med gáfuna og má ekkért af því geyma til morguns. 16. En ef fórnargáfa hans er heitgjøf, eda friviljug gáfa, þá skal hún etast sama dag sem komid var med hana, þó má þad sem leifist etast daginn eptir; 17. en þad sem þá verdur eptir af fórnar kjøtinu skal brennast í eldi á þridja degi. 18. En ef á þridja degi er etid af kjøti þakklætisfórnarinnar, þá mun sá sem frambar hana ekki þókknast Drottni, hún mun ekki tilreiknast honum, hún verdur illa luktandi, og hvør sá sem etur þar af, ber sína misgjørd. 19. Kjøt sem snertir nokkud óhreint, má ekki etast, heldur á ad brennast í eldi; annars má sérhvør sem hreinn er eta kjøtid. 20. En hvør sá sem etur af þakklætisfórna kjøti því, sem Drottni tilheyrir, á medan hann er óhreinn, hann skal upprætast frá sínu fólki; 21. og hvør sem snertir nokkud óhreint, hvørt heldur þad er óhreinn madur, eda óhrein sképna, eda hvør helst vidurstygd sem þad er, og samt etur af þakklætisfórnar kjøti því, sem Drottni tilheyrir, hann skal upprætast frá sínu fólki.

22. En framar taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 23. Seg þú Ísraels børnum: Einga feiti nauta, sauda né geita meigid þér eta. 24. En feiti af hræum og af því sem af villidýrum er sundurrifid, má brúka til alls sem medþarf, en ekki skulud þér hana eta. 25. Ef nokkur etur feiti af fénadi, er menn færa Drottni sem eldfórn, sá sem etur þaraf, hann skal upprætast frá sínu fólki. 26. Ei skulud þér heldur blód eta, hvar helst sem ydar bústadur verdur, hvørki fugla né fénadar; 27. hvør sem nokkurt blód etur, hann skal upprætast frá sínu fólki.

28. En framar taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 29. Bjód þú Ísraelsbørnum, ad sá sem færir Drottni þakklætisfórn, hann skuli (sjálfur) frambera af þakkarfórn sinni þad, sem hann géfur Drottni; 30. med sínum eigin høndum skal hann frambera eldfórnir Drottins; feitina á bríngunni skal hann frambera ásamt bríngustikkinu sjálfu, til þess því verdi veifad, sem veifíngarfórn fyrir Drottni. 31. Feitina skal presturinn upptendra á altarinu, en bríngustikkid skal tilheyra Aron og hans sonum; 32. og hægra bóginn skulud þér og svo géfa prestinum af ydar þakklætisfórnum, svo sem upplyptíngarfórn. 33. Hægri bógurinn *) skal vera hluti þess af sonum Arons sem framber blódid og fituna af þakklætisfórninni; 34. því af Ísraelsbarna þakklætisfórnum tek eg vid bríngustikkinu svo sem veifíngarfórn og hægri bógnum svo sem upplyptíngarfórn; og géf þad prestinum Aron og hans sonum svo sem støduga tekju af Ísraelsbørnum. 35. Þetta er skérfur Arons og skérfur sona hans af eldfórnum Drottins frá þeim degi hann framleiddi þá til ad gégna prestsverknm frammi fyrir Drottni; 36. hvør skérfur Drott=

V. 13. Þad mátti sýrt vera, sem í fórnarveitslu brúkadist, en ekkért súrt mátti vera í því sem á altarid var látid. V. 18. Illa luktandi gagnstædt: til sætleiks ilms, þ. er. velþóknanlegt. V. 19. Kjøt sem snertir óhreint, nefnil. eptir ad búid er ad færa þad til altarisins. V. 20. Upprætast frá sínu fólki, þ. e. annadhvørt: vera dræpur Kap. 17, 4. ellegar útlægur, líklegast hid fyrr talda. V. 21. Vidurstygd kølludust afgudir og skúrgod og allt sem þessara dýrkun vidkom. V. 30. Upplyptíngarfórn og veifíngarfórn kalladist allt þad, sem á lopt var hafid eda veifad af fórnum fyrir dyrum tjaldbúdarinnar, eda leidt til og frá, svo sem til ad sýna þad Drottni. V. 33. *) Adr. læri.

inn skipadi ad skyldi géfast þeim, og skyldi
þad vera eilíf reglugjørd fyrir eptirkomandi ættir.
37. Þetta eru þau løgmál um brennifórnir,
matfórnir, synda- og sekta-fórnir, um vígslu-
og þakklætis-fórnir, 38. sem Drottinn gaf
Móses á fjallinu Sínaí, þá hann baud Ísra-
elsbørnum ad færa Drottni gáfur sínar í
Sínaí eydimørku.

## 8. Kapítuli.

Um vígslu prestanna og helgidómsins.

1. Eptir þetta taladi Drottinn vid Móses
og sagdi: 2. Tak Aron og sonu hans med
honum, klædin og vígslu-vidsmjørid, synda-
fórnar uxann, báda hrútana og kørfuna med
ósýrdu braudunum, 3. og samansafnadu øllum
søfnudinum ad dyrum samkundu-tjaldbúdar-
innar. 4. Móses gjørdi eins og Drottinn hafdi
skipad honum; samankalladi søfnudinn ad dyr-
um samkundu-tjaldbúdarinnar, 5. og sagdi:
þetta er þad sem Drottinn hefir skipad mér ad
gjøra. 6. Sídan framleiddi Móses Aron og
sonu hans, þvodi þá í vatni og 7. færdi hann
í serkinn, gyrdti hann beltinu og færdi
hann í høkulkirtilinn, lagdi yfir hann høkul-
inn og gyrdti hann þeim rósum ofna høk-
ullinda, og skrýddi hann þannig. 8. Þar á festi
hann brjóstskjøldinn, og lét í hann „ljósid og sann-
leikann“; 9. vafdi ennidúknum um høfud hans,
og setti gullspaungina, þad helga merki, fram-
aná, allt eins og Drottinn hafdi bodid honum.
10. Sídan tók Móses vígslu-vidsmjørid og
smurdi med því tjald-búdina og allt þad sem í
henni var, og vígdi þad allt, 11. og støkkti af
því sjø sinnum á altarid, og smurdi altarid og
øll þess verkfæri, þvottakérid og stétt þess, til
ad helga þad. 12. Sømuleidis hellti hann
vígslu-vidsmjørinu yfir høfud Arons og smurdi
hann, svo ad hann helgadi hann. 13. Þar
eptir framleiddi Móses syni Arons, færdi þá í
serkina og gyrdti þá beltum, og batt á þá høf-
uddúkana, eins og Drottinn hafdi bodid honum.
14. Ad þessu búnu framleiddi hann uxann,
sem til syndafórnar var ætladur og Aron og
synir hans løgdu hendur sínar á høfud synda-
fórnar uxans; 15. en Móses slátradi honum,
tók blódid og rjódadi því med fíngri sínum á
horn altarisins allt í kríng, og hreinsadi þar
med altarid frá synd, en því sem eptir var af
blódinu hellti hann vid fót altarisins, og helg-
adi altarid, svo ad forlíkun mætti gjøra á því.
16. Sídan tók Móses mørinn sem innislin eru
vafin í, stærra lifrar-bladid, bædi nýrun og
nýrmørinn, og upptendradi þad á altarinu;
17. en uxann sjálfann, bædi skinn hans, kjøtid
og saurinn, brendi Móses í eldi fyrir utan
herbúdirnar, eins og Drottinn hafdi bodid hon-
um. 18. Þaráeptir framleiddi Móses brenni-
fórnar hrútinn, og Aron og synir hans løgdu
hendur sínar á høfud hans; 19. Móses slátradi
honum og støkkti blódinu allt í kríng á altarid
20. hlutadi þareptir hrútinn sundur í parta
og gjørdi upptendran af høfdinu, stikkjunum og
mørnum; 21. en innislin og fæturnar þvodi
hann í vatni og brendi sídan allan hrútinn sem
upptendran á altarinu, brennifórn til sætleiks
ilms, eldfórn Drottni til dýrdar, eins og Drott-
inn hafdi bodid Mósesi. 22. Ad þessu búnu
framleiddi Móses hinn hrútinn, nefnilega vígslu-
hrútinn, og þá Aron og synir hans høfdu lagt

V. 5. Þad var þad sem Drottinn skipadi Móses: ad skrýda prestana og vígja þá og musterid. Um allt þetta sbr. 2 Mós. Kapp. 28da til 30ta. V. 10. Vegna þess musterid og allt þad sem í því var, stód á medal syndugra manna (4 Mós. 2, 2.) vard þad ad hreinsast af því syndakámi, sem vid þad loddi, ádur enn nokkur Guds dýrkun þar framfór, þarfyrir vigt. Sømuleidis brennifórnar-altarid (sjá 2 Mós. 27, 1. ff.), sem stód fyrir framan samkundu-tjaldbúdar dyrnar, ádur enn nokkur fórn mátti þar á leggjast.

hendur á høfud hans, 23. slátradi hann honum, tók nokkud af blódinu, og rjódadi þar med Arons hægra eyrna-snepil, þumalfíngurinn á hans hægri hendi og þumaltána á hans hægra fæti. 24. Þaráeptir framleiddi Móses syni Arons og rjódadi blódinu á hægra eyrna-snepil þeirra og þumalfíngur þeirra og þumaltær hægrameigin, en því sem eptir var af blodinu støkkti hann allt í kríng á altarid. 25. Sídan tók hann fituna, nefnilega: rófuna, mørinn sem innislin eru vafin í, stærra lifrarbladid, bædi nýrun og nýrmørinn og hægra bóginn; 26. Sømuleidis tók hann úr kørfu hinna ósýrdu braudanna, sem stód fyrir augliti Drottins, eina ósýrda køku, og eina vidsmjørs braudkøku og einn leif og lagdi þad ofaná feitina og hægra bóginn, og 27. lagdi þad allt í lófa Arons og sona hans, og veifadi því sem veifíngarfórn fyrir Drottni. 28. Sídan tók Móses vid því aptur úr høndum þeirra og upptendradi þad á altarinu ásamt med brennifórninni. Þetta var vígslufórn til sætleiks ilms, eldfórn fyrir Drottinn. 29. Þar eptir tók Móses brínguna, veifadi henni sem veifíngarfórn fyrir Drottni. Af vígsluhrútnum fékk Móses hana í sinn hluta, því svo hafdi Drottinn bodid honum. 30. Þarnæst tók Móses nokkud af smurníngar vidsmjørinu og blódinu sem var á altarinu og støkkti því á Aron og klædi hans, sømuleidis á syni hans og þeirra klædi, og helgadi þannig Aron og hans klædi og syni hans og þeirra klædi.

31. Þareptir sagdi Móses til Aron og sona hans: matreidid þér kjøtid fyrir utan dyr samkundu-tjaldbúdarinnar og etid þad þar, med því braudi sem er í vígslufórna kørfunni; eins og eg baud, þegar eg sagdi: Aron og synir hans skulu þad eta; 32. en þad sem eptir verdur af kjøtinu og braudinu skulud þér brenna í eldi. 33. Í sjø daga skulud þér ekki gánga útúr dyrum samkundu-tjaldbúdarinnar, ekki fyrr enn ydar vígsludagar eru á enda, því í sjø daga munu menn fylla ydar hendur (med fórnum). 34. En eins og menn gjørt hafa á þessum degi, því sama hefir Drottinn bodid ad menn skuli fara fram (á hinum), ydur til forlíkunar. 35. Í sjø daga skulud þér halda kyrru fyrir hjá dyrum samkundu-tjaldbúdarinnar, bædi dag og nótt, og halda vørd hjá Drottni, svo þér deyid ei, því svo er mér bodid. 36. Og Aron og synir hans gjørdu þad allt, sem Drottinn hafdi látid Móses bjóda þeim.

## 9. Kapítuli.

Arons fórn o. s. frv.

1. Á áttunda deginum samankalladi Móses Aron, syni hans og øldúnga Ísraels lýds, 2. og sagdi til Arons: Taktu fyrir þig kálf til syndafórnar og hrút til brennifórnar, hvørutveggja án lýta, og leid fyrir augsýn Drottins; 3. en til Ísraels barna skaltu segja: takid kjarnhafur til syndafórnar, og kálf og saudkind, hvørutveggja veturgamallt og lýtalaust til brennifórnar, 4. og nautkind og hrút til þakklætisfórnar, til þess þad slátrist fyrir augliti Drottins, og ásamt matfórn ádreifdri vidsmjøri; því Drottinn mun í dag birtast ydur. 5. Þeir komu med allt þad sem Móses baud þeim framfyrir samkundu-tjaldbúdina, og allur søfnudurinn færdi sig nær, og stód frammi fyrir Drottni. 6. Þá segir Móses: þetta er þad sem Drottinn hefir bodid ydur ad gjøra, og mun

V. 33. Þared prestarnir máttu hvørki sitja né sofa í samkundu-tjaldbúdinni sjálfri, en eingin má missa hvíld og svefn í heila viku, þá er þad audskilid, ad hér er meint: ad prestarnir máttu ekki vígslu vikuna gánga út fyrir forgarda samkundu-tjaldbúdarinnar (sbr. 2 Mós. 27, 9. ff.), sem reiknast med samkundu-tjaldbúdinni. Þannig er opt sagt í N. T. ad Kristur hafi kennt í musterinu þ. e. forgørdum þess, því eingir máttu inn í musterid koma, nema prestarnir.

hans dýrd birtast ydur. 7. Þareptir sagdi
Móses til Arons: nálæg þig altarinu og tilreid
þína syndafórn og brennifórn, svo þú forlíkir
fyrir þig og fyrir fólkid, og tilreid sídan fólks=
ins fórnargáfu, til þess þú forlíkir fyrir þad,
eins og Drottinn hefir bodid. 8. Aron geing=
ur því til altarisins, slátrar kálfinum til synda=
fórnar fyrir sig, 9. en synir hans færdu honum
blódid, hann dýfdi vísifíngri sínum í þad, og
reid því á horn altarisins, en hinu sem eptir
var hellti hann nidur hjá altarisins fæti, 10.
en mørinn, nýrun og stærra lifrar bladid synda=
fórnarinnar upptendradi hann á altarinu, eins
og Drottinn hafdi bodid Mósés; 11. en kjøt=
id og skinnid brendi hann í eldi fyrir utan her=
búdirnar. 12. Sídan slátradi hann brennifórn=
inni; og Arons synir réttu ad honum blódid,
en hann støkkti því umkríng á altarid; 13. þeir
réttu líka ad honum brennifórnina í stikkjum og
høfudid og hann upptendradi þad á altarinu;
14. inniflin þvodi hann og fæturnar, sem hann
þareptir brendi á altarinu sem upptendran ofaná
sjálfri brennifórninni. 15. Þar á eptir fram=
bar hann fórnargáfu fólksins, tók hafurinn, sem
ætladur var til syndafórnar fyrir fólkid, slátradi
honum og gjørdi hann ad syndafórn, á þann
hátt sem ádur er fráságt. 16. Hann framkom
ogsvo med brennifórnina og tilreiddi hana eins
og tilsett var. 17. Sømuleidis frambar hann
matfórnina, tók þaraf fullan knefa sinn og
upptendradi þad á altarinu, auk (þeirrar hvørs=
daglegu) morgun brennifórnar. 18. Þareptir
slátradi hannn nautkindinni og hrútnum, þakk=
lætisfórn fólksins; en synir Arons réttu blódid
ad honum, en hann støkkti því allt í kríng á alt=
arid. 19. Þaráeptir réttu þeir ad honum feit=
ina af nautkindinni og hrútnum: rófuna, netjuna,
nýrun og stærra lifrar bladid; 20. þeir løgdu
þessi fitu stikki, ofaná bríngurnar, en Aron upp=
tendradi á altarinu feitina, 21. en veifadi bríng=
unum og hægra bógnum sem veifíngarfórn
fyrir Drottni, eins og Móses hafdi bodid.
22. Sídan upplypti Aron sínum høndum yfir
fólkid og blessadi þad, sté sídan nidur, eptir
þad ad hann hafdi tilreidt synda=brenni=og
þakklætis=fórnirnar. 23. Þaráeptir gékk
Móses og Aron inní samkundu=tjaldbúdina; en
þá þeir voru komnir út aptur og høfdu blessad
yfir fólkid, þá byrtist dýrd Drottins gjørvøllum
lýdnum; 24. því eldur útgékk frá Drottni,
sem eyddi því, sem á altarinu var: brennifórninni
og feitinni; en sem allur lýdurinn sá þetta, æpti
hann fagnadaróp, og féll framá sínar ásjónur.

## 10. Kapítuli.

Nadab og Abíhú fyrirfarast af eldi frá Drottni.

1. En synir Arons Nadab og Abíhú tóku
hvør sitt glódarkér og létu þarí eld og þar of=
an á reykelsi. Þeir báru fyrir Drottinn ann=
arlegan eld, þvert á móti því, sem Drottinn
hafdi þeim bodid. 2. En þá útfór eldur frá
augliti Drottins og eyddi þeim, svo þeir dóu
fyrir augliti Drottins. 3. Þá segir Móses
til Arons, þetta hefir Drottinn talad: eg vil
haldinn vera heilagur af þeim sem nálægja sig
til mín. En Aron mælti ekki ord frá munni.
4. Móses kalladi þá á Misael og Elsafon,
syni Usíels fødurbródur Arons, og sagdi til
þeirra: komid og berid burt úr helgidóminum
frændur ykkar út fyrir herbúdirnar. 5. Þeir
komu og báru þá burt, íklædda þeirra serkjum, út=
fyrir herbúdirnar. 6. Sídan segir Móses til

V. 7. Serhvør synd, sem presturinn gjørdi sig sekann í, gjørdi allt fólkid sekt. V. 17. Sbr. 2 Mós. 29, 39. V. 24. Jafnvel heidnir menn álitu þad merki uppá guda sinna velþóknan, ad fórnir þeirra brinnu gladt á altarinu. V. 6. Ad þrísa af sér høfudfatid og rifa rifu ofaní kirtil sinn var sorgarmerki hjá Gydingum. Eptir Kap. 21, 10. 12. máttu prestar — ad minnstakosti ekki ædsti presturinn — nein þvilík sorgarmerki sýna, svo sem Gudi helgadir menn.

Arons og sona hans Eleasar og Ithamar:
þér skulud ekki hafa bert høfud ydar edur rífa
í sundur klædi ydar, svo ad þér ekki deyid, og
Drottinn ekki reidist øllum søfnudinum, en
brædur ydar, allur Israelslýdur, má gráta
yfir þeim eldi sem Drottinn hefir kveikt. 7.
Ekki skulud þér fara út fyrir dyr samkundu-
tjaldbúdarinnar til þess þér ekki deyid, þar ed
smurníngar vidsmjør Drottins er á ydar høfd-
um. Þeir hlýddu bodum Móses. 8. En til
Arons taladi hann þessum ordum. 9. Þú
skalt hvørki né synir þínir drekka vín né áfeing-
an drikk, þegar þér gángid inní samkundu-
tjaldbúdina, svo ad þér ekki deyid. Þetta er
óraskanlegt løgmál fyrir ydar ætt; 10. svo ad
þér gjørid greinarmun á því sem er heilagt og
vanheilagt, því sem er hreint og óhreint, 11.
og gétid frædt Israels børn um øll þau løg
er Drottinn hefir þeim sett fyrir medalgaungu
Móses.

12. Þar á eptir segir Móses til Arons og
til Eleasar og Ithamars, sona hans, sem ept-
ir vóru: takid þá matfórn sem eptir er af elds-
fórn Drottins og etid hana án súrdeigs hjá alt-
arinu, því hún er háheiløg, 13. þér skulud
eta hana á helgum stad, því þetta er skérfur
þinn og sona þinna af eldsfórnum Drottins.
Svo er mér bodid. 14. En veifíngar brínг-
una og upplyptíngar boginn skulud þér eta á
hreinum stad, þú, og synir þínir og dætur med
þér, því þad er skérfur gésinn þér og nidjum
þínum af þakklætisfórnum Israelsbarna. 15.
Upplyptíngar boginn og veifíngar-brínguna
skulud þér ásamt feiti eldsfórnarinnar frambera
svo því sé veifad sem veifíngarfórn fyrir aug-
liti Drottins, en þar á eptir skal þad tilheyra
þér og sonum þínum med þér, og vera ydar
æfinlegur skérfur; eins og Drottinn hefir bodid.

16. En sem Móses hafdi vandlega leitad
ad syndafórnar hafrinum, var hann uppbrend-
ur, þá reiddist hann Eleasar og Ithamar, son-
um Arons, sem eptir voru, og sagdi til þeirra:
17. Hvar fyrir átud þér ekki syndafórnina á
helgum stad? hún er háheiløg, og Drottinn
hefir gésid ydur hana til þess þér skulid burt-
taka safnadarins misgjørd og gjøra forlíkun
fyrir hann fyrir Drottni. 18. Sjá! blód þess-
arar fórnar er ekki komid inní helgidóminn;
þér áttud þó ad borda hana í helgidóminum,
eins og eg baud ydur. 19. Aron svarar: sjá!
í dag hafa menn framborid sínar syndafórnir
og brennifórnir fyrir auglit Drottins, en mig
hefir slíkt hendt. Hefdi eg nú í dag etid
syndafórnina, mundi Drottni hafa þóknast þad?
20. Þegar Móses heyrdi þetta, lét hann sér
þad lynda.

## 11. Kapítuli.

**Um hrein og óhrein dýr.**

1. Eptir þetta taladi Drottinn vid Móses
og Aron svo feldum ordum. 2. Segid þetta
nidjum Israels: þetta eru þau af ferfættum
dýrum jardarinnar, sem þér meigid eta. 3. Sér-
hvørt þad dýr sem hefur klaufir fullkomlega
klofnar og jórtrar, þad megid þér eta. Samt
meigid þér ekki eta þessi dýr, sem jórtra og hafa
klaufir: 4. úlfaldann, því ad hann jórtrar ad
sønnu, en hefir ekki klaufir alklofnar; hann sé
ydur því óhreinn; 5. støkkhérann, því hann jórtr-
ar ad sønnu, en hefir eigi klaufir, hann sé ydur
því óhreinn. 6. Sømuleidis hérann, því þótt
hann jórtri, hefir hann ekki klaufir, hann sé

V. 14. á hreinum stad, þ. e. sem ekki var óhreinn ordinn t. d. af líki eda ødru sem gjørdi óhreinann sjá Kap. 11, 10. ff.; mátti því bordast í heimahúsum prestanna, þurfti ekki bordast á helgum stad, þ. e. innan musterisins vebanda.
V. 19. Aron, sem var innvortis syrgjandi, þó hann útvortis mætti ekki sýna þad, afsakadi sig med sona missirnum, ad hann ekki hefdi gétad haft allan hugann á sínum embættisverkum, og Móses tók þá afsøkun gilda.

ydur því óhreinn. 7. Sømuleidis skal svínid
vera ydur óhreint, því ad þad hefir ad sønnu
klaufir og þad alklofnar, en jórtrar ekki. 8.
Þér skulud ekki eta af þessara dýra kjøti, eda
snerta þeirra hræ, því þau eru ydur óhrein.

9. En þetta meigid þér eta af því sem í
vatni er. Allt þad sem í vatni, sjó og ám hefir
sundugga og hreistur meigid þér eta. 10. En
sérhvad þad í sjó eda ám, sérhvørt kvikindi eda
lifandi sképna sem í vatni er og eigi hefir sund-
ugga eda hreistur, þad sé ydur vidurstygd.
11. Andstygd skal þad allt vera ydur, ekki
skulud þér eta af þessara sképna kjøt, og vid hræ-
um þeirra skal ydur stugga. 12. Sérhvad þad
í vatni er, og ekki hefir sundugga og hreistur,
þad skal vera ydur vidurstygd.

13. Vid þessum fuglum, sem ekki meiga
etast, skal ydur líka stugga, því ad þeir eru
vidurstygd: ørnin, beinbrjóturinn og sjáfarørn-
in; 14. gledan, gjódurinn og þeir sem eru
sømu tegundar, 15. allar hrafna tegundir, 16.
strúts fuglinn hvørt hann er karlkyns eda
kvennkyns, hornuglan og allar vala tegundir,
17. náttuglan, pelikaninn og nátthrafninn,
18. svanurinn, músarbródirinn, hrægripurinn, 19.
storkurinn, og allar hegra-tegundir, akurhæn-
an og ledurblakan. 20. Øll fleyg skridkvik-
indi, sem á fjórum fótum gánga skulu vera ydur
vidurstygd: 21. þó meigid þér eta þau fleyg
skridkvikindi, sem gánga á fjórum fótum, sem ekki
hafa leggi uppaf fótunum til ad støkkva med á
jørdunni; 22. af þeim meigid þér eta þessi:
eingisprettuna og hennar tegundir; nagarann
med hans tegundum, þær imsu hoppu- og jard-
þekju-tegundir; 23. en øll ønnur fleyg skrid-
kvikindi, sem hafa fjórar fætur, skulu vera yd-
ur vidurstygd. 24. Þér verdid óhreinir af
þeim; hvør sem snertir hræ þessara sképna,
er óhreinn til kvølds; 25. en hvør sá sem ber
hræ þeirra burt, hann skal þvo sín klædi, og er
óhreinn til kvølds. 26. Sérhvørt dýr sem hef-
ir óklofin hóf og ekki jórtrar, er ydur þessvegna
óhreint, og hvør sem þad snertir verdur ó-
hreinn; 27. og sérhvørt ferfætt dýr medal lif-
andi sképna, sem á løppum geingur, skal vera ydur
óhreint. Hvør sem snertir hræ þess er óhreinn
til kvølds; 28. og sá sem burtber hræ þess, skal
þvo klædi sín og er óhreinn til kvølds. Þess-
háttar sképnur skulu vera ydur óhreinar.

29. Af þeim sképnum, sem á jørdu skrída,
skulu þessar ydur óhreinar vera: hreisivislan,
músin, og allar illyrmis tegundir, 30. kvein-
nadran, aflnadran, stjørnunadran, nadran og
moldvarpan. 31. Þessi kvikindi skulu ydur
vera óhrein, hvør sem snertir þau, þegar þau
eru daud, hann er óhreinn allt til kvølds, 32.
og ofaná hvad sem þad dettur, þegar þad er
daudt, verdur óhreint, hvørt sem þad er trékér,
klædi, skinn eda sekkur; eda þad er verkfæri,
sem til einhvørs gagns er haft, skal þad í vatn
leggjast og er óhreint til kvølds, en þá er þad
líka hreint.

33. Ef eitthvad þvílíkt dettur ofaní leirkér,
þá verdur allt, sem í því er, óhreint, og þér
skulud brjóta kérid. 34. Komi þvílíkt vatn í
nokkurn mat, sem etinn er, þá er hann óhreinn,
og allur sá drikkur, sem drukkinn er af hvørs-
konar þvílíku kéri, er óhreinn. 35. Sérhvad,
sem þessara kvikinda hræ fellur á, verdur ó-
hreint; hvørt heldur þad er ofn eda eldsgagn,
skal þad eydileggjast, því ad þad er óhreint, og
skal vera ydur óhreint úr því. 36. Einúngis

V. 13. Óvíst er hvørt nøfn allra þeirra fugla sem í vv. 13—19. eru upptaldir eru rétt. Lærdir menn eru hérum í vafa. V. 22. Nagarinn o. s. fr. eru ymsar eingisprettu tegundir, hafa fjórar fætur jafnvel fleiri sumar, til ad skrída med, en þar ad auki 2 lángar, sem þær brúka, þegar þær vilja støkkva. Sumar af þessum eru ætar, sja Matth. 3, 4. V. 26. Nefnil. þegar þad er daudt, því snerta mátti þessi dýr lifandi.

uppſprettur, grafnir brunnar og pollar eru hrein-
ir; en ſá ſem ſnertir hræ þeſsara kvikinda, hann
verdur óhreinn. 37. Þó ad af hræi þeſsara
kvikinda falli á ſædi, ſem ætlad er til útſáds,
er þad (ſamt) hreint; 38. en ef vatn er álátid,
og detti ſídan nokkud af þeſsum hræum á þad,
þá er þad ydur óhreint.

39. En ef nokkur ſképna deyr, ſem ydur er
æt, þá er ſamt ſá óhreinn til kvølds er hana
ſnertir, 40. og ſá ſem etur af hræinu, hann
ſkal þvo klædi ſín, og er óhreinn til kvølds,
ſømuleidis ſkal ſá, ſem ber hræid burt þvo klædi
ſín og vera óhreinn til kvølds.

41. Allt þad ſem á jørdu ſkrídur ſkal vera
ydur vidurſtygd, og ekki ſkulu menn eta þad;
42. Þér ſkulud ekkért þad eta, ſem ſkrídur á
kvidnum um jørdina, eda ſkrídur á fjórum eda
fleirum fótum, af øllum þeim dýrum ſem ſkrída
á jørdunni, því þad er allt vidurſtygd, 43.
ſvo ad þér gjørid eigi ſjálfa ydur vidurſtyggi-
lega af nokkru kvikindi, er ſkrídur, og ekki
ſaurgiſt af því, ſvo ad þér óhreinir verdid; 44.
því ad eg er Gud ydar Drottinn; þar fyrir
ſkulud þér vardveita ydur heilaga, því eg em
heilagur, þeſsvegna ſkulud þér ekki ſaurga ſjálfa
ydur á nokkru kvikindi, ſem á jørdunni er;
45. því ad eg er Drottinn ſem leiddi ydur
upp frá Egyptalandi, ſvo ad eg væri ydar Gud.
Þér ſkulud vera heilagir, því eg em heilagur.

46. Þeſsi eru løgin um dýr og fugla og
allshádttar ſképnur ſem í vatni ſveima, og um
allskonar ſképnur ſem á jørdunni ſkrída, 47.
ſvo ad þér gétid adgreint óhreint frá hreinu,
ætar ſképnur frá óætum.

## 12. Kapítuli.

Um ſængur-konur.

1. En framar taladi Drottinn vid Móſes:
og ſagdi: 2. Tala þú þannig til Israelsbarna:
þegar kona verdur barnshafandi og fædir ſvein-
barn, þá ſkal hún óhrein álítaſt ſjø daga; daga
þá ſem hún hefur blódlát er hún óhrein; 3. og á
áttunda degi ſkal barnid umſkéraſt; 4. en konan
ſkal halda ſig heima í þrjá og þrjátýgir daga
á medan hún er ad hreinſaſt af ſínum blódlát-
um, og á medan má hún ekkért heilagt ſnerta
og ei til helgidómſins koma, þar til hennar
hreinſunardagar eru lidnir. 5. En ef hún fæd-
ir meybarn, þá ſkal hún álítaſt óhrein tvær
vikur, á medan blódlát hennar vara, og þar-
adauk ſkal hún halda ſig heima í ſex og ſex-
tíu daga til hreinſunar frá ſínum blódlátum.
6. En þegar hennar hreinſunar dagar eru úti,
hvørt ſem þad er eptir ſon eda dóttur, þá ſkal hún
koma med ársgamlan hrút til brennifórnar, og
dúfu únga, eda turtildúfu til ſyndafórnar, til
dyra ſamkundu-tjaldbúdarinnar til preſtſins;
7. en preſturinn ſkal færa fórnina fyrir auglit
Drottins og forlíka fyrir konuna. Þá verd-
ur hún hrein eptir ſín blódlát. Þannig hljód-
ar løgmálid um þá konu, ſem fædt hefir ſon
eda dóttur. 8. En ef hún ekki á fyrir vetur-
gamallri ſaudkind, þá komi hún med tvær turt-
ildúfur, eda tvo dúfu únga, annann til brenni-
fórnar, en hinn til ſyndafórnar, og preſturinn
ſkal þá forlíka hana, ſvo ad hún hrein verdi.

## 13. Kapítuli.

Líkþráar einkénni á mønnum og klædum.

1. En framar taladi Drottinn til Móſes
og Arons þannig: 2. Ef ad kémur í hørund

---

V. 37. Þad korn, ſem ætlad var til útſædis var bleytt í vatni til fljótari frjófgunar. V. 2. ff. Menn og hlutir, ſem ſnertu ſængurkonu fyrſtu viku eptir barnburd, máttu ekki koma til muſterisins, né nærri nokkru því ſem Gudi var helgad, nema þeir væru ádur hreinſadir. Hún ſjalf matti ekki koma til muſterisins fyrri enn 33 eda 66 døgum eptir barnburdinn. Kap. 13. V. 2. Preſtar hjá Gydingum høfdu eins og hjá Egyptſkum, nokkra verdslega makt, og vóru líka læknir-ar. Sbr. Lúk. 17, 14. Matth. 8, 5.

manns þroti, skurfa, eda blettur sem gljáir á,
svo ad þad gefur grun um líkþráarinnar plágu,
þá skal hann færast prestinum Aron eda ein-
hvörjum ødrum af prestunum, sonum hans, 3.
þegar presturinn hefir skodad blettinn á hørundinu,
og hárid í blettinum er ordid hvítt, og holdid
er þar lægra enn hørundid er annarstadar, þá
er þad líkþrár merki, og þegar presturinn hef-
ir skodad hann, skal hann dæma hann óhrein-
ann. 4. En ef hvítleitur blettur er (ad sønnu)
á hørundinu, en liggur þó tilsýndar ekki dýp-
ra inn í holdid enn hørundid annarsstadar, og
hárid í blettinum ekki er ordid hvítt, þá skal
presturinn halda þeim, sem blettinn hefir, inni-
lokudum í sjø daga. 5. Á sjøunda degi skal
presturinn skoda hann aptur. Ef honum sýn-
ist þá bletturinn vera eins, og ekki hafa stækk-
ad, skal hann aptur halda honum innilokudum
í sjø daga; 6. og þegar presturinn á sjøunda deg-
inum hefir á ný skodad hann, og sjer ad blett-
urinn er ordinn bleikari og hefir ekki etid sig
vídar út, þá skal presturinn úrskurda manninn
hreinann; þad er þá kládi; madurinn skal þvo
klædi sín, og þá er hann hreinn. 7. En ef
bletturinn breidir sig vídar út um hørundid, ept-
ir þad ad hann var skodadur af prestinum og
álitinn hreinn, þá skal hann aptur skodast af
prestinum, 8. og þegar hann þá skodar hann og
þad sjest, ad bletturinn hefir etid sig út, þá skal prest-
urinn úrskurda hann óhreinann; þad er þá líkþrá.

9. Ef líkþrár blettir eru á nokkrum manni,
þá skal hann leidast til prestsins; 10. sjái
hann, þegar hann skodar manninn, ad hvítur
þroti er í hørundinu, sem hefir gjørt hárin hvít,
og skýn inní lifandi hold þar sem þrotinn er,
11. þá er líkþrá rótgróin í hans holdi, og
presturinn skal úrskurda hann óhreinann og
ekki inniloka hann, því hann er óhreinn. 12.
En ef líkþráin skyldi sterklega hafa brotist út
úr hørundinu, og líkþráin hylur allt hørundid
frá høfdi til fóta, svo mikid sem presturinn
getur sjed; 13. þegar presturinn hefir skodad
hann og sjer ad líkþráin hylur allt hørundid,
þá skal hann úrskurda líkþrána hreina, þegar
hinn líkþrái er allur ordinn hvítur, þá er hann
hreinn; 14. en þann dag sem sjest í kvikt hold
á honum, er hann óhreinn; 15. og þegar prest-
urinn sjer í kvikt hold, þá skal hann dæma
hinn óhreinann. Hid kvika hold er óhreint;
þad er líkþrár (merki). 16. En ef hid kvika
hold aptur hverfur og þad verdur hvítt, þá
skal hann fara til prestsins. 17. Þegar prest-
urinn er búinn ad skoda hann; ef hann þá sjer
ad útbrotin eru ordin hvít, þá skal hann úr-
skurda hann hreinann; hann er hreinn.

18. Komi kýli á nokkurs manns hørund, og
þad grær, 19. en þar sem þad stód, verdur ept-
ir hvítur þroti, eda bleikraudur blettur, þá skal
hann skodast af prestinum. 20. Sýnist þá
prestinum, þegar hann er búinn ad skoda hann,
ad þar sé dæld í hørundinu, og ad hárin í henni
séu ordin hvít, skal hann dæma manninn óhrein-
ann, vegna þess þad er líkþrár blettur; líkþrá-
in hefir brotist út í kýlinu. 21. En þegar prest-
urinn er búinn ad skoda hann, ef hann sjer, ad
þar eru eingi hvít hár, og hørundid ekki þar
lægra enn annarstadar og bletturinn bleikleitur,
þá skal presturinn halda honum innilokudum í
sjø daga. 22. Ef bletturinn skyldi stækka tølu-
verdt, þá skal presturinn úrskurda hann óhrein-
ann, þad er þá líkþrár blettur. 23. En ef
bletturinn er kyrr og ekki etur sig út, þá er þad kýlis
ør og presturinn skal úrskurda manninn hreinann.

24. Ef nokkur hefir bruna blett á hørundinu
og hvítt merki sjest eptir brunann eda blettur
raudleitur eda hvítur; 25. þá skal presturinn

V. 14. Urskurda líkþrána hreina, nefnil. þad sé ei saknæmt fyrir adra ad hafa umgéngni vid þann, sem hana hafdi.
V. 25. Í Egyptalandi og hjá Gydingum var svo líkþrár hætt, ad þar vard ad brúka allan varhuga vid ef hún atti

ſkoda blettinn, og ef hann ſjer ad hárin í blettinum eru ordin hvít, og dæld ſýniſt þar vera í hørundinu, þá hefur líkþrá brotiſt út í hørundinu eptir brunann, og preſturinn ſkal dæma manninn óhreinann; líkþráar plágan er þad. 26. En ef preſturinn, þegar hann er búinn ad ſkoda hann, ſjer ad hárin ekki eru ordin hvít og þar er eingi lægd í hørundinu, heldur einúngis bleikari hørundsliturinn, þá ſkal preſturinn inniloka hann í ſjø daga, 27. og hann ſkal þá ſkoda hann á ſjøunda deginum, og ef ad hann þá ſjer ad hann hefir breidt ſig út í hørundinu, þá ſkal hann úrſkurda manninn óhreinann, því þad er líkþráarinnar plága. 28. En ef bletturinn er á ſama ſtad (óumbreyttur) og hefir ekki læſt ſig vídar út, en er bleikleitur, þá er þad þroti eptir brunann, og preſturinn ſkal úrſkurda hann hreinann, því þad er bruna ør.

29. Fái madur eda kona blett í høfud eda ſkégg, 30. þá ſkal preſturinnn ſkoda hann; ſé þar, eptir útliti, dæld í hørundinu og hárid þar raudgult og þunnt, þá dæmi hann þá ſkurfu óhreina, þad er líkþrá á høfdi eda í ſkéggi. 31. En ef ad preſturinn ſjer, þegar hann hefir ſkodad þeſsa meinſemdar ſkurfu, og hún eptir útliti ekki ſtendur dýpra enn hørundid, en hárin í henni eru (ſamt) ekki ſvørt, þá ſkal preſturinn inniloka þann, ſem pláguna hefir, í ſjø daga, 32. en þegar preſturinn hefir ſkodad hann á þeim ſjøunda degi og ſjer ad ſkurfan hefir ekki etid ſig út leingra og hárid í henni ekki er ordid raudgult, og ekki lítur út ad hún ſtandi dýpra enn hørundid annarſtadar, 33. þá ſkal hann raka ſig, en blettinn ſkal hann ſamt ekki raka, og preſturinn ſkal aptur inniloka þann, ſem ſkurfuna hefir, í ſjø daga; 34. en þegar preſturinn ſkodar hana aptur á ſjøunda degi og ſjer ad hún hefir ekki vídar etid ſig útí hørundid, og til ad ſjá, er eingi dæld í hørundid (þar ſem hún er), þá ſkal preſturinn úrſkurda manninn hreinann; hann ſkal þvo ſín klædi, og ſvo er hann hreinn. 35. En ef ad ſkurfan etur ſig vídar út, eptir þad ad hann er úrſkurdadur hreinn, 36. og preſturinn, þegar hann ſkodar hann, ſjer ad ſkurfan hefir etid ſig vídar, þá þarf hann ekki ad ranſaka þad nákvæmlega hvørt hárid er ordid raudgult; madurinn er óhreinn, 37. en ef honum ſýniſt ad ſkurfan ſé vid hid ſama, og ſvart hár ſprettur í blettinum, þá er ſkurfan læknud; hann er hreinn og preſturinn ſkal dæma hann hreinann. 38. Ef á hørund manns eda konu koma margir hvítir blettir, 39. og preſturinn ſjer, þegar hann ſkodar þá, ad þeir eru bleikhvítir, þá er þad hvíta veikin, er brotiſt hefir út í hørundinu, en madurinn er hreinn. — 40. Þó ad hár detti af nokkurs manns høfdi bakatil verdur hann (ad ſønnu) ſkøllóttur, en er (ſamt) hreinn. 41. Detti hár af framhøfdi hans, fær hann krúnu ſkalla, en er ſamt hreinn. 42. En ef bleikraud ſkurfa kémur þará ſem hann hefir ſkallann í hnakkanum eda krúnunni, er þad líkþrá ſem er ad brjótaſt út á hnakkanum eda krúnunni, þar ſem ſkallinn er; 43. og þegar preſturinn þá ſkodar hann, og ſjer bleikrauda þrota meinſemd í ſkallanum, ſem er ad framan eda aptanverdu á høfdinu, er lítur út eins og hørunds líkþrá, 44. þá er madurinn líkþrár og óhreinn, og preſturinn ſkal úrſkurda hann óhreinann; líkþráar plágan er í høfdi hans.

45. Sá ſem af líkþránni er plágadur, hann ſkal gánga í ſundurrifnum klædum, vera med bert høfud, hylja ſkégg ſitt og hrópa: óhreinn,

ekki til meins ad koma, ekki einúngis fyrir þann ſem hana fékk, heldur og ſvo ad adrir útifrá ekki ſkyldu fá hana af honum. V. 34. Svo er hann hreinn, þ. e. hann má koma til muſteriſins og vera í ſambúd vid adra menn. Sjá ſkgr. v. 25. V. 39. Hvíta veikin (á hebr. Bókaka), þ. e. ekki fyrir adra ſaknæm líkþráar tegund. V. 45. Hylja ſkégg ſitt, var ſorgarmerki, hrópa óhr. óhreinn! átti ſá líkþrái hrópa til þeirra ſem honum mættu, ſvo þeir varaduſt ad koma nærri honum, því í heitu løndunum eru ſjúkdómar miklu næmari enn hjá oſs. Sjá ſkgr. v. 25.

óhreinn! 46. Ámedan hann hefir þessa sjúkdóms plágu, skal hann álítast óhreinn, búa sér, og bústadur hans skal vera fyrir utan herbúdirnar.

47. Ef líkþrár blettir sýna sig á nokkru fati, hvørt þad heldur er af ull eda líni, 48. hvørt heldur þad er á uppistødunni eda fyrirvafinu á líninu eda ullinni, eda á skinni, eda nokkru því sem gjørt er af skinni; 49. nefnilega ef grænleitur eda raudleitur blettur kémur á fat, skinn, uppistødu eda fyrirvaf eda nokkud þad, sem af skinni er gjørt, þá er þad líkþrár galli, og skal presturinn skoda hann. 50. Þegar presturinn hefir skodad blettinn, skal hann inniloka þad, sem bletturinn er á í sjø daga; 51. og á sjøunda deginum skal hann aptur skoda hann; sjái hann ad bletturinn hefir etid sig út í fatid, uppistødunna, fyrirvafid, skinnid, eda þann hlut, sem af því var tilbúin; þá er þad illa kynjud líkþrá, hluturinn er óhreinn. 52. Hann skal brenna fatid, hvørt sem gallinn er í uppistødunni eda fyrirvafinu, í ullu eda líni, og sérhvørn hlut úr skinni tilbúinn, sem þessi galli er á, því hann er illa kynjadrar líkþrár merki og skal því sá hlutur í eldi brennast. 53. En ef presturinn sjer ad gallinn ekki hefir læst sig vídar út í fatid, uppistøduna eda fyrirvafid, eda þann hlut, sem úr skinni er tilbúinn, 54. þá bjódi presturinn ad menn þvoi þad sem gallinn er á og læsi þad inni aptur í sjø daga. 55. En ef hann sjer þegar hann skodar þad eptir ad þad er þveigid, ad gallinn lítur út til ad vera vid hid sama, þó hann hafi ekki etid sig vídar út, þá er hlutnrinn samt óhreinn og skal brennast; þar er skémd komin, þar sem snodid er á rétthverfunni eda úthverfunni. 56. En ef presturinn sjer, þegar hann er búinn ad skoda hlutinn ad gallinn hefir minkad, eptir ad hann var þveiginn, þá skal hann rífa blettinn burt af fatinu eda skinninu úr uppistødunni eda fyrirvafinu. 57. En sýni hann sig aptur á fatinu, uppistødunni eda fyrirvafinu, eda þeim hlut, sem af skinni er gjørr, þá er þad líkþrá sem er ad brjótast út, og hluturinn, sem gallinn er á skal uppbrennast í eldi. 58. En ef sá ljóti galli fer burt af klædinu, uppistødunni eda fyrirvafinu, eda því sem af skinni er gjørt, er þú áttir ad þvo, þá skal þvo þetta á ný, og þá er þad hreint. 59. Þetta er løgmálid um líkþráar galla á fatnadi af ullu eda líni í uppistødu eda fyrirvafi, og hvørju því, sem af skinni er gjørt, eptir hvørju þad á ad úrskurdast hreint eda óhreint.

## 14. Kapítuli.

Hvornig líkþrá skuli hreinsast á monnum og húsum:

1. En framar taladi Drottinn vid Móses þannig: 2. Þetta skal vera løgmál áhrærandi þann líkþráa, á þeim degi sem hann hreinsast. Hann skal færast til prestsins, 3. og presturinn skal gánga út fyrir herbúdirnar og skoda hann, og þegar hann sjer ad líkþráar plágan er læknud á honum, 4. þá skal presturinn bjóda, ad teknir séu, fyrir þann sem hreinsast á 2 hreinir líflegir smáfuglar, sedrusvidur, purpuri og ýsóp, 5. sídan skal hann bjóda ad ødrum smáfuglinum sé slátrad í leirkér yfir vatni. 6. Þar eptir skal hann taka lifandi fuglinn, sedrusvidinn, purpurann og ýsópid, og dýfa því ásamt lifandi fuglinum í blód hins fuglsins, sem slátrad var yfir lifandi vatninu, 7. og støkkva sjø sinnum á þann, sem er ad hreinsa sig af líkþránni og úrskurda hann hreinann, og sleppa sídan þeim lifandi fugli lausum útá mørkina. 8. Þar eptir skal sá sem er ad hreinsa sig, þvo sín klædi, raka burt allt sitt hár, og lauga sig í vatni, þá er hann hreinn

V. 58. Þá er þad hreint, þ. e. má af mønnum brúkast og hagnýtast. V. 7. Fuglin hvørjum slátrad var átti ad tákna forlíkunar-gjørd, sá sem sleppt var, ad sá hreinsadi mætti nú koma í heilbrigdra manna félag.

og má ad því búnu koma inní herbúdirnar, þó skal hann í 7 daga halda sig fyrir utan sína tjaldbúd; 9. og á sjøunda deginum skal hann burtraka allt sitt hár, bædi høfudhár, skégg og þad sem er á hans augabrúm, allt hár sem á honum er skal hann afraka, þvo klædi sín og lauga líkama sinn í vatni; þá er hann fyrst hreinn. 10. Á 8da deginum skal han taka tvo árs gamla lýtalausa hrúta og eina ársgamla lýtalausa gimbur og þrjá tíundu parta (Efa) hveitimjøls, yfir hvørt vidsmjøri er ausid til matfórnar, og einn lóg vidsmjørs. 11. Sídan skal presturinn, sem er ad hreinsa, færa þann mann, sem verid er ad hreinsa, og þetta allt fyrir auglit Drottins, vid dyr samkundu-tjaldbúdarinnar, 12. taka annad hrútlambid og frambera þad sem sektafórn, ásamt vidsmjørs lóginum, og veifa hvørutveggju sem veifingar-fórn, fyrir augliti Drottins; 13. og slátra hrútlambinu á sama stad, sem vant er ad slátra syndafórnum og brennifórnum, á helgum stad, því ad þessi syndafórn tilheyrir prestinum eins og sektafórnin, og er háheiløg. 14. Þarnæst skal presturinn taka nokkud af blódi sektafórnarinnar og rjóda því á hægra eyrna snepil þess, sem er ad hreinsa sig og á hans hægra þumalfíngur og stóru tá á hægra fæti. 15. Þareptir skal presturinn taka nokkud úr vidsmjørs lóginum og hella í sína vinstri handar lúku, 16. og drepa sínum hægri handar fíngri í vidsmjørid, sem er í hans vinstri handar lúku og sjø sinnum støkkva af fíngrinum vidsmjørinu frammi fyrir Drottni; 17. en med því sem eptir er af vidsmjørinu í lúku hans, skal presturinn smyrja hægra eyrna snepil þess, sem er ad hreinsa sig, þumalfíngur hans á hægri hendi og stóru tá á hægra fæti ofaná sektafórnar blódid. 18. En þad sem enn þá er eptir af vidsmjørinu í lófa hans skal presturinn láta á høfud þess sem er ad hreinsa sig, 19. og þannig forlíka fyrir hann fyrir augliti Drottins. Sídan skal presturinn tilreida syndafórnina og forlíka fyrir þann sem er ad hreinsa sig af sínum óhreinleika, 20. og loksins slátra brennifórninni, og leggja uppá altarid brennifórnina og matfórnina. Ad þessu gjørdu hefir presturinn forlíkad fyrir hann, og hann er hreinn.

21. En ef madurinn er fátækur og hefir ekki efni á ad greida þetta, þá skal hann taka veturgamla kind til sektafórnar til veifíngar, svo forlíkun skéi fyrir hann, og til matfórnar tíunda part (Efa) hveitimjøls, sem døggvad sé vidsmjøri, og lóg vidsmjørs, 22. og 2 turtildúfur eda tvo dúfu únga, eptir sem efni hans leifa, skal annar þessara vera syndafórn, en hinn brennifórn; 23. þetta skal hann á áttunda degi færa prestinum sér til hreinsunar, til dyra samkundu-tjaldbúdarinnar, fyrir auglit Drottins, 24. og presturinn skal taka sektafórnar lambid og vidsmjørs lóginn, og veifa því, sem veifíngarfórn, fyrir augliti Drottins, 25. sídan skal presturinn slátra sektafórnar lambinu, taka nokkud af blódi sektafórnarinnar og rjóda á hægra eyrna snepil þess, sem er ad hreinsa sig, á hans þumalfíngur á hægri hendi og stóru tá á hægra fæti; 26. en hella nokkru af vidsmjørinu í sína vinstri handar lúku, 27. og sjø sinnum støkkva frammi fyrir Drottni med sínum hægri handar fíngri af því vidsmjøri, sem er í hans vinstri handar lófa. 28. En sídan skal presturinn smyrja af vidsmjørinu, sem eptir er í lófa hans, á hægra eyrna snepil þess, sem er ad hreinsa sig, á hans hægri þumalfíngur og hans hægri stóru tá, á sama stad og sektafórnar blódid er. 29. En þad sem eptir er af vidsmjørinu í lófa hans, skal hann láta á høfud þess, sem er ad hreinsa sig, og þannig forlíka hann fyrir augliti Drottins; 30. þaráeptir

V. 10. Lógur tók vidlíka mikid og 6 hænu egg.

skal hann tilreida adra turtildúfuna eda dúfuúngann, sem madurinn eptir sínum efnum greiddi, 31. sem syndafórn, en hina sem brennifórn ásamt med matfórninni, og forlíkar presturinn þannig fyrir þann, sem er ad hreinsa sig, fyrir augliti Drottins. 32. Þetta er nú løgmálid áhrærandi þann, sem líkþrár hefir verid, en ekki á fyrir hreinsun sinni.

33. En framar taladi Drottinn þannig vid Móses og Aron: 34. þegar þér komid til Kanaanslands, sem eg gaf ydur til eignar, og eg sendi líkþráar pláguna í nokkurt hús þessarar ydar eignar, 35. þá skal sá fara, sem húsid á, og segja prestinum til, ad honum sýnist eitthvad líkt líkþráar plágunni í húsinu, 36. og presturinn skal þá bjóda honum ad rydja húsid ádurenn hann kémur til ad skoda gallann, svo ad ekki verdi allt óhreint sem í húsinu er. Sídan skal presturinn koma ad skoda húsid. 37. Ef hann sjer, þegar hann skodar gallann, ad dældir eru inní veggi húsins grænleitar eda raudleitar, sem ber lægra á enn veggnum annarstadar, 38. þá skal hann gánga til dyra hússins, útúr því, og halda því læstu í sjø daga. 39. Á sjøunda degi skal hann koma aptur til skodunar, og ef hann sjer ad gallinn hefir breidt sig vídar út á veggjum hússins, 40. þá skal hann bjóda ad steinarnir, sem gallinn er á, séu burtteknir og þeim kastad á óhreinan stad fyrir utan borgina, 41. en húsid skal hann láta skafa innan allt í kríng, og bera ruslid sem afskafid er, út úr borginni á óhreinan stad; 42. og menn skulu taka adra steina og innsetja þá í hinna stad, og kalka húsid aptur med ødru kalki; 43. en ef bletturinn kémur aptur og brýtst út á ný í húsinu eptir þad ad menn hafa úttekid steinana, skafid húsid og límkastad, 44. þá skal presturinn fara inn og skoda; og ef hann þá sjer ad bletturinn hefir etid sig vídar út í húsinu, þá er illa kynjud líkþrá í húsinu og þad óhreint. 45. Húsid skal þá nidur brjótast, og steinar, vidir og kalk þess húss berast útúr stadnum á óhreinan stad. 46. Hvør sem geingur iun í þad hús, alla þá daga sem þad er læst, hann er óhreinn allt til kvølds, 47. og sá sem sefur í því skal þvo sín klædi, og sømuleidis skal sá sem etur þar inni þvo sín klædi. 48. En ef presturinn, þegar hann kémur aptur og skodar húsid, sjer ad bletturinn hefir ekki etid sig vídar út eptir ad þad var límkastad, þá skal hann úrskurda húsid hreint, því gallinn er læknadur, 49. og taka til syndafórnar fyrir húsid tvo smáfugla, sedrusvid, purpura og ýsop, 50. og slátra ødrum fuglinum í leirkér yfir lifandi vatni. 51. Sídan skal hann taka sedrusvidinn, ýsopid, purpurann og lifandi fuglinn og dýfa því øllu ofaní blód slátrada fuglsins og lifandi vatnid, og støkkva á húsid sjø sinnum; 52. og þannig hreinsa húsid frá synd med blódi smáfuglsins, vatninu, þeim lifandi titlíng, sedrusvidnum, ýsopinu og purpuranum. 53. Þareptir skal hann sleppa þeim lifandi fugli frjálsum og fríum útúr borginni, útá mørkina og hefir hann þá forlíkad fyrir húsid, svo ad þad er hreint. 54. Þetta eru løgin um allskonar líkþráar plágu og útbrot, 55. og líkþrá klæda og húsa, um þrota, útbrot á høfdi og hvítroda ákomur, 56. svo menn géti strax þekkt hvad er óhreint, og hvad er hreint. 57. Svo laung eru løgin um líkþrána.

## 15. Kapítuli.

Um sædisfall karlmanna og tídir kvenna, og hvørnig þau hreinsast skuli.

1. En framar taladi Drottinn þannig vid Móses og Aron: 2. Talid til Israelsbarna og

V. 51. Lifandi vatn, er sama sem uppsprettu eda rennandi vatn. Hér er meint vatn ný sókt í uppsprettu eda rennandi vatn, sama sem: besta vatn. V. 55. Hvad sú umtalada líkþrá á húsum eda føtum hefir verid vita menn ekki.

segid þeim: Hvør madur sem þad er sem af sádfalli er sjúkur, er óhreinn vegna þess, 3. og hann er óhreinn vegna sádfallsins; hvørt heldur sædid fer frá honum, eda þad innibyrgist í líkamanum, er hann óhreinn. 4. Sérhvørt legurúm er sá liggur á, sem sádfall hefir, er ad álíta óhreint, og sérhvad annad sem hann situr á er ad álíta óhreint. 5. Hvør sem snertir hans legurúm skal þvo sín klædi og lauga sig í vatni, og er óhreinn allt til kvølds. 6. Og sá sem setst á þad, sem sá hefir setid á, er sádfall hefir, skal þvo sín klædi og lauga sig í vatni og vera óhreinn allt til kvølds. 7. Sá sem snertir hold þvílíks, hann skal þvo klædi sín og lauga sig í vatni og vera óhreinn allt til kvølds. 8. Ef sá sem sádfall hefir spýtir á þann sem hreinn er, skal þessi þvo klædi sín og lauga sig í vatni og er óhreinn allt til kvølds. 9. Vagnsæti þad, sem sá situr á er sadfall hefir verdur (af honum) óhreint. 10. Sá sem snertir nokkud þad, sem undir honum hefir leigid, verdur óhreinn allt til kvølds, og sá sem ber þad burt, skal þvo klædi sín og vera óhreinn allt til kvølds; 11. og hvør sem hinn sjúki snertir, án þess ad hafa þveigid høndur sínar í vatni, skal þvo klædi sín og lauga sig í vatni og vera óhreinn allt til kvølds. 12. Hvørt leirkér, sem sá snertir, er sádfall hefir, skal brjótast í sundur og sérhvørt trékér þvost í vatni. 13. Þegar hinn sjúki er hreinn ordinn af sádfalli sínu, skal hann telja sjø daga frá því hann vard hreinn, og ad þeim lidnum skal hann þvo klædi sín og lauga sig í lifandi vatni; svo verdur hann hreinn. 14. En á 8da deginum skal hann taka tvær turtildúfur eda 2 dúfu-únga, koma fyrir auglit Drottins til samkundutjaldbúdar dyranna, og fá þá prestinum, 15. sem skal tilreida þá, annann til synda-fórnar enn hinn til brennifórnar, og þannig forlíka þann, fyrir augliti Drottins, sem af sádfalli hefir verid sjúkur.

16. Sá frá hvørjum sædi hefir útfarid skal þvo allan sinn líkama í vatni og vera óhreinn allt til kvølds, 17. og sérhvørt klædi eda skinn, sem sædid hefir komid á, skal þvost í vatni og er óhreint til kvølds. 18. Ef madur hefir sámrædi vid konu, skulu þau bædi lauga sig í vatni og eru óhrein til kvølds.

19. Þegar kona fær sínar tídir, skal hún vera sjø daga í sínum óhreinleika, og hvør sem snertir hana er óhreinn til kvølds. 20. Allt þad sem hún liggur á ámedan hún hefir tídirnar verdur óhreint, og allt sem hún situr á verdur óhreint. 21. Sá sem snertir sæng hennar, skal þvo sín klædi og lauga sig í vatni, og er óhreinn allt til kvølds; 22. og sérhvør sem snertir nokkud þad, sem hún hefir setid á, skal þvo klædi sín, lauga sig í vatni og vera óhreinn til kvølds. 23. Sæng hennar og þad sem hún hefir setid á, þad saurgar allt til kvølds, ef madur snertir þad. 24. Ef nokkur sængar hjá henni og tídablód hennar kémur á hann, þá er hann óhreinn í sjø daga, og hvør sú sæng sem hann liggur á verdur óhrein.

25. Þegar kona hefir blódlát marga daga, annadhvørt ekki á venjulegum tíma, eda framyfir (venjulegan) tída tíma, þá er hún óhrein á medan hennar tída óhreinleiki varir, eins og hún hefdi sínar venjulegu tídir. 26. Hvør sæng sem hún hefur hvílt á og sérhvad þad sem hún hefir setid á, ámedan hún hafdi blódlátin, verdur óhreint, eins og sæng sú og sæti, sem hún brúkar, þegar hún hefir sínar reglulegu tídir. 27. Hvør sem snertir nokkud af því, verdur óhreinn, skal þvo klædi sín og lauga sig í vatni, og er óhreinn til kvølds. 28. En þegar hún verdur hrein af blódlátunum, þá

V. 7. Sá sem snertir, o. s. fr. nefnil. konan eda læknirinn.

skal hún telja sjø daga, og þá er hún ordin hrein. 29. En á 8da deginum skal hún taka tvær turtildúfur eda tvo dúfu-únga, og færa þá prestinum fyrir samkundu-tjaldbúdar dyrnar; 30. og presturinn skal tilreida annann til syndafórnar og hinn til brennifórnar, og forlíka þannig, fyrir Drottins augliti, fyrir þá (konu), sem vegna blódláts hafdi verid óhrein.

31. Látid Israelsbørn halda sér frá því sem óhreint er, ad þeir ekki skuli deya vegna þeirra óhreinleika, undir eins og þeir saurga minn bústad, sem er midt á medal þeirra. 32. Svona hljóda løgin um þann sem sádfall hefir, og þann sem saurgast hefir af samrædi vid konu, 33. og um þá (konu) sem sjúk er af sínum tídum, um karlmann sem hefir sádfall og konu sem blódlát hefir, og um karlmann sem sængar hjá þeirri konu, sem er óhrein.

## 16. Kapítuli.

Um þá miklu forlíkunar hátíd.

1. En framar taladi Drottinn þannig vid Móses eptir dauda tveggja Arons sona, sem dóu þá þeir nálægdu sig augliti Drottins. 2. Drottinn sagdi: seg þú Aron bródur þínum, ad hann megi ekki á hvørjum helst túma gánga inní helgidóminn, inn fyrir fortjaldid framfyrir lokid (nádar stólinn), sem er yfir ørkinni, ad hann ekki skuli deya, því í skýinu, sem er yfir arkarlokinu mun eg birtast. 3. Þegar Aron kémur inní helgidóminn, skal hann framkoma med úngneyti til syndafórnar og hrút til brennifórnar. 4. Hann skal einúngis ífæra sig þeim helga serki og línbrókum yfir bert hørund, og girda sig línbeltinu og vefja prestadúknum um høfud sitt. Þetta eru hin helgu klædi; en ádurenn hann færir sig í þau, skal hann lauga sinn líkama í vatni; 5. og af Israelsbarna søfnudi skal hann taka á móti tveimur kjarnhøfrum til syndafórnar og einum hrút til brennifórnar. 6. Þaraeptir skal Aron framleida sína eigin syndafórn, úngneytid, og forlíka fyrir sig og sitt hús; 7. og sídan skal hann taka þá tvo kjarnhafra og leida þá framfyrir Drottinn, fyrir dyr samkundu tjaldbúdarinnar, 8. og kasta hlutkésti um báda hafrana, ødru fyrir Drottinn en ødru fyrir Asasel. 9. Sídan skal Aron framleida þann kjarnhafurinn á hvørn hlutur Drottins féll, og fara med hann sem syndafórn; 10. en hinn hafurinn, sem hlotnadist Asasel, skal hann leida lifandi framfyrir Drottinn, svo hann gjøri forlíkun med honum og sendi hann burt til Asasels í eydimørkina. 11. Sídan skal Aron framleida uxann, syndafórn sjálfs síns, og forlíka fyrir sig og hús sitt, og slátra uxanum, syndafórn sjálfs síns. 12. Þareptir skal hann taka fullt glódarkér med glóandi kolum frá altarinu, sem stendur fyrir Drottins augsýn, og knefa sína fulla med smámulid ilmandi reykelsi og fara med þad innfyrir fortjaldid, 13. láta reykelsid á eldinn fyrir augliti Drottins, svo ad ský reykelsisins hylji arkarlokid, sem er yfir løgmáls ørkinni, svo ad hann ekki deyi, 14. og hann skal taka nokkud af uxans blódi, og støkkva því med fíngri sínum yfir arkarlokid gégn austri, sjø sinnum skal hann støkkva blódinu af fíngri sínum fyrir framan arkarlokid. 15. Þar eptir skal hann slátra hafrinum sem er syndafórn fyrir fólkid, og bera blód hans innfyrir fortjaldid og fara med þad

V. 1. Sbr. Kap. 10, 1. 2. V. 2. Þad fortjald sem hér talast um er þad sem var á milli þess helgasta og allrahelgasta. Sjá Kap. 4, v. 6. Skýrgr. V. 4. Þetta er allra presta sidvanalegi skrúdi, (sjá 2 Mós. 28, 40—43.) en ekki ædsta prestsins hátida-skrúdi; því á þeirri stóru forlíkunar hátíd áttu menn ad koma med audmýkt fyrir Gud. V. 8. Asasel, sumir halda hérmed meinist djøfullinn, honum skuli allar syndir framvegis tilheyra; adrir ad hérmed meinist einhvør eydimørk. V. 12. Nefnil. frá brennifórna altarinu, á hvørju eldurinn mátti hvørki nótt né dag slokkna. V. 13. Sjá 2 Mós. 25, 10—22. 40, 20. 21.

á sama hátt, eins og hann fór med blód uxans, støkkva því yfir arkarlokid og fyrir framan þad; 16. og þannig skal hann hreinsa helgidóminn frá Ísraelsbarna saurugleika, frá þeirra yfirtrodslum og allri þeirra synd; og sama skal hann gjøra vid samkundu-tjaldbúdina, sem stendur medal þeirra, midt í þeirra óhreinleika. 17. Einginn madur ma vera í samkundu tjaldbúdinni frá því ædsti presturinn, geingur þar inn, til þess ad hreinsa helgidóminn, þángad til hann fer þadan út aptur — og hann skal gjøra forlíkun fyrir sjálfann sig, sitt hús og allan Ísraels søfnud. 18. Þar eptir skal hann gánga út til þess altaris, sem stendur fyrir augliti Drottins og hreinsa þad; hann skal taka nokkud af blódi uxans og blódi hafursins og rjóda á horn altarisins umhverfis, 19. og 7 sinnum støkkva blódinu af fíngri sínum yfir þad, og hreinsa þad af Ísraelsbarna saurugleika, og helga þad.

20. Þegar Aron hefir fullkomnad forlíkunargjørd helgidómsins, samkundu tjaldbúdarinnar og altarisins, þá skal hann framleida þann lifandi kjarnhafur, 21. leggja bádar sínar hendur á hans høfud og medkénna yfir honum alla Ísraelsbarna misgjørnínga, yfirtrodslur og syndir, og leggja þær á høfud kjarnhafursins, og senda hann burt í eydimørku med manni, sem þar til er ferdbúinn, 22. svo hafurinn burtberi á sjálfum sér alla þeirra misgjørnínga til óvaxtarlauss lands, og í eydimørkinni skal madurinn sleppa hafrinum. 23. Ad því búnu skal Aron fara inní samkundutjaldbúdina og afklæda sig línklædunum, sem hann fór í þegar hann gékk inni helgidóminn, og skilja þau þar eptir. 24. Sídan skal hann lauga líkama sinn í vatni á helgum stad, færa sig í sín eigin klædi og gánga svo út og fórnfæra sjálfs síns brennifórn, og fólksins brennifórn, og forlíka þannig fyrir sig og fólkid. 25. Þad feita af brennifórninni skal hann upptendra á altarinu.

26. Sá sem fór burt med hafurinn til Asasels, skal þvo klædi sín og lauga líkama sinn í vatni, en ad því búnu má hann koma inní herbúdirnar.

27. Syndafórnar uxann og syndafórnar hafurinn, hvørra blód var innborid í helgidóminn til forlíkunar, skulu menn bera út fyrir herbúdirnar og brenna þar skinn þeirra, kjøt og saur; 28. en sá sem þad brennir skal þvo sín klædi og lauga líkama sinn í vatni, ad því gjørdu má hann koma inní herbúdirnar.

29. Þad skal vera ydur eilíf skikkan: ad þér á 10da degi þess sjøunda mánadar audmýkid ydur og einga vinnu vinnid, hvørki sá innlendi, né sá útlendi sem er sem framandi, á medal ydar; 30. því á þessum degi skal presturinn gjøra forlíkun fyrir ydur; af øllum ydar syndum skulud þér hreinir vera fyrir Drottins augliti. 31. Þessi dagur skal vera ydur (enn hátídlegasti) hvíldardagur, og á honum skulud þér audmýkja ydar sálir. — Þetta skal vera eilíf skikkan.

32. Sá prestur skal gjøra forlíkunina, sem smurdur hefir verid og vígdur til prests í fødur síns stad, og skal hann þá færa sig í línklædin, þann helga skrúda, 33. og hann skal gjøra forlíkun fyrir hid allrahelgasta, samkundu tjaldbúdina og altarid, sømuleidis forlíka fyrir prestana og allt fólkid safnadarins. 34. Þad skal vera ydur ein eilíf skikkan, ad Ísraelsbørn

V. 16. Sjá skgr. vid Kap. 8. v. 10. Musterid vard ad hreinsast til ad verda hæfilegur bústadur fyrir Gud, nálægt hvørjum ekkért saurugt má koma. V. 17. Hér er meint til reykelsis altarisins, sem stód inni því helgasta. Sjá Kap. 4, 18. skgr. V. 24. Í sín eigin klædi, þ. e. sinn ædsta prests skrúda. V. 29. Sá 7di mánudur kalladist Tisri, svarar til seinni parts Septbr. og fyrra parts Októbr. þessi mánudur var sá 7di í kirkju-ári Gydinga, en sá fyrsti í því borgaralega ári, eptir sem menn halda. V. 32. Ædsti presturinn. Hebr. 9.

einusinni á ári hvørju hreinsist frá øllum þeirra
syndum. Og Móses gjørdi eins og Drottinn
hafdi honum bodid.

## 17. Kapítuli.

Drottinn bannar fórnfæríngar nema hjá samkundu-
tjaldbúdinni. Ad borda blód, o. s. fr.

1. Drottinn taladi enn framar þannig vid Mó-
ses: 2. Tala þú til Arons og sona hans og allra
Israelsbarna og seg þeim ad þad sé Drottins
bod: 3. ad hvør sá af Israels húsi sem slátr-
ar nautkind, eda saudkind', eda geit í herbúd-
unum eda fyrir utan þær, og 4. leidir þad ekki
fram fyrir samkundu-tjaldbúdar dyrnar ef hann
ætlar ad fórnfæra þad Drottni, fram fyrir hans
bústad, hann skal vera blódsekur; hann hefir
blódi úthellt, og skal upprætast frá sínu fólki;
5. þarfyrir skulu Israelsbørn koma med þeirra
sláturs fórnir, sem þeir vanir hafa verid ad slát-
ra á mørkinni, og færa þær Drottni, til dyra
samkundu-tjaldbúdarinnar, til prestsins; þar
skulu þeir slátra þeim Drottni svo sem þakk-
lætisfórnum, 6. og presturinn skal støkkva blód-
inu á altari Drottins (sem stendur) fyrir fram-
an samkundu-tjaldbúdar dyrnar, og upptendra
þad feita Drottni til sætleiks ilms; 7. en ekki
skulu þeir framar færa fórnir þeim stríhærdu
gudum, hvørja þeir hafa elt og drýgt hór med.
Þetta skal vera þeim ævarandi løgmál og þeirra
eptirkomendum; 8. þar fyrir skaltu segja þeim:
hvør sá madur af húsi Israels, eda framandi,
sem býr ámedal þeirra, sem kémur med brenni-
fórn, eda sláturs fórn, 9. og ekki leidir hana
fyrir dyr samkundu-tjaldbúdarinnar, fyrir aug-
lit Drottins, hann skal upprætast frá sínu fólki.
10. Hvør sá madur af húsi Israels, eda
framandi sem býr ámedal Israelítanna, sem et-
ur blód, gégn þeirri blódátu vil eg setja mig,
og uppræta hann frá sínu fólki; 11. því líf
dýrsins er í blódinu, en eg hefi gefid ydur blód
fyrir altarid, til þess forlíkun þarmed skéi fyrir
ydar sálir; blódid er þad, sem forlíkar fyrir
sálina. 12. Þessvegna hefi eg sagt til Isra-
elsnidja: einginn af Israelsbørnum má eta
blód, og ekki má heldur nokkur framandi sem
býr ámedal þeirra eta blód. 13. Ef nokkur
af Israelsbørnum eda madur útlendur, sem býr
ámedal þeirra veidir villidýr eda fugl, sem má
etast, þá skal hann hella nidur blódinu, og hylja
þad med jørdu; 14. því ad sérhvørs lifanda
líf er í blódi þess, blódid er þess líf; þess
vegna sagda eg til Israelsbarna: einkis dýrs
blód skulud þér eta, því sérhvørs dýrs líf er
blód þess, og hvør sem þad etur skal upprætast.
15. Hvør sem hræ etur eda þad sem af villi-
dýri er sundurrifid, hvørt heldur hann er inn-
lendur eda útlendur, skal þvo klædi sín og lauga
sig í vatni og er óhreinn til kvølds; en úr því
er hann hreinn; 16. en ef hann ekki þvær þau,
né laugar sinn líkama, þá ber hann sína sekt.

## 18. Kapítuli.

Bannad hjónaband og samrædi vid náskilda, og
ýmislegur annar saurlifnadur.

1. En framar taladi Drottinn þannig vid
Móses: 2. Tala þú vid Israelsbørn og segdu
til þeirra: eg er Drottinn ydar Gud. 3. Þér
skulud ekki breita eptir háttum Egyptalands,
hvar þér ádur bjuggud, né háttum Kanaans-
lands í hvørt eg mun innleida ydur og ekki

V. 4. 2 Mós. 21, 12. 3 Mós. 3, 17. V. 7. Egyptskir dýrkudu afgudi í ymsum dýra mindum, 2 Mós. 32, 4. 8. 18. 19. 2 Kron. 11, 15. Israelsbørn hórudust, eda tóku framhjá Gudi, þegar þeir dýrkudu afgudi; og hvør sem þad gjørdi átti ad grýtast, 5 Mós. 17, 2—5; en heil borg sem gjørdi sig þarí seka, gjørsamlega ad eydileggjast. V. 14. Vegna þess blódid var haldid hid dýrmætasta af dýri hvørju, var þad Gudi einum helgad og mátti ekki af mønnum etast. Med þessu banni fyrirbyggdust og heimuglegar heidinglegar blótveitslur.

skulud þér fylgja þeirra sidvenjum, 4. heldur skulud þér breita eptir mínum bodordum, og vardveita mína setnínga, svo þér gjörid eptir þeim. Eg em Drottinn ydar Gud. 5. Þér skulud vardveita mína setnínga og bodord; hvør sá madur sem þad gjörir, mun þarfyrir lifa. Eg er Drottinn.

6. Einginn nálægi sig nokkurri náskildri konu til ad bera hennar blygdan. Eg er Drottinn. 7. Hvørki berir þú blygdan fødur þíns, þad er módur þinnar; vegna þess ad hún er þín módir, skaltu ekki bera hennar blygdan; 8. þú skalt ei bera blygdan stjúpmódur þinnar, þvíad þad er blygdan fødur þíns. 9. Ekki heldur skaltu bera blygdan systur þinnar, hvørt heldur þad er dóttir fødur þíns eda módur þinnar, hvørt heldur hún er fædd heima eda utan húss. 10. Ekki skaltu bera blygdan þinnar sonardóttur eda dótturdóttur, því þad er þín eigin blygdan. 11. Blygdan dóttur stjúpmódur þinnar, sem hún hefir fædt fødur þínum, máttu ekki bera, þvíad hún er systir þín. 12. Ekki heldur máttu bera blygdan þinnar fødursystur, vegna náskildugleika hennar vid fødur þinn; 13. né bera blygdan þinnar módursystur, vegna hennar náskyldugleika vid módur þína. 14. Ekki skaltu heldur bera blygdan fødurbródur þíns, nálægja þig konu hans, þvíad hún er fødursystir þín. 15. Ekki skaltu bera blygdan teingdadóttur þinnar, vegna þess ad hún er kona sonar þíns skaltu eigi bera hennar blygdan. 16. Ekki skaltu bera blygdan teingdasystur þinnar, þvíad þad er blygdan bródur þíns. 17. Ei máttu bera blygdan nokkurrar konu og dóttur hennar (líka), né taka hennar sonardóttur eda dóttur-dóttur til ad bera blygdan þeirra, þvíad þær eru henni náteingdar; þad er skammarverk! 18. Ekki skaltu heldur á medan konan lifir, ásamt konunni líka taka systur hennar til ad bera hennar blygdan, konunni til elju-rígs.

19. Þú skalt ekki nálægja þig konu til ad bera blygdan hennar á medan hún er óhrein af sínum tídum. 20. Ekki heldur skaltu hafa holdlegt samrædi vid konu náúnga þíns, svo þú ei saurgist af henni.

21. Ekki skaltu géfa Mólok til fórnar nokkurn af nidjum þínum, svo ad þú ekki vanhelgir nafn þíns Guds. Eg er Drottinn. 22. Þú skalt ekki liggja hjá karlmanni, sem kona væri; þad er vidurstygd! 23. Þú skalt ekki samlaga þig nokkrum fénadi, svo ad þú saurgist eigi af honum, og ekki heldur kona liggja hjá fénadi; þad er svívirdileg saurgan!

24. Saurgid ydur ekki med nokkru þvílíku, því med þessháttar hafa saurgad sig heidnar þjódir, sem eg vil reka burt frá ydur. 25. Landid er saurgad, eg vil vitja þess misgjørda; og þad hefir þegar útskirpt sínum innbyggjurum frá sér. 26. En þér skulud vardveita mína setnínga og bodord, svo ad hvørki sá innlendi né útlendi, sem býr ámedal ydar, drýgi nokkura þvílíka vidurstigd. 27. Því allar þessar svívirdíngar hafa þeir sem byggdu landid áundan ydur drýgt, og saurgad þarmed landid, 28. svo ad landid ekki skirpi ydur frá sér vegna þess ad þér saurgid þad, eins og þad skirpti frá sér þeim þjódum sem á undan ydur vóru; 29. þvíad hvør sem drýgir nokkra af þessum vidurstigdum, sú sál, sem þad gjörir, skal upprætast frá sínu fólki. 30. Vardveitid þar fyrir þau bodord, sem eg hefi feingid ydur til vardveitslu, svo ad þér fylgid eingum af þeim vidurstiggi-

V. 4. Þegar vid løggjøf eda fyrirheit er bætt þessum ordum: eg em Drottinn, eda eg er Drottinn ydar Gud, géfur þad hvørutveggju enn meiri helgi; nefnil. ad Gud vafalaust straffi yfirtrodsluna, efni fyrirheitid. V. 6. Bera blygdan, þ. e. hafa holdl. samrædi vid. V. 9. Fædd h. eda utan h. líklegast: ekta eda óekta V. 25. Gud segist vitja mannanna, þegar hann annadhvørt sendir þeim straff eda líkn.

legu háttum er þeir fylgdu, sem á undan ydur vóru og saurgid ydur þarvid. Eg er Drottinn ydar Gud!

## 19. Kapítuli.

Ímisleg bodord sida og helgihalda logmáli vidkomandi.

1. En taladi Drottinn vid Móses, þannig: 2. Tala þú til alls safnadar Israels barna og seg þeim: verid heilagir, þvíad eg Drottinn, ydar Gud er heilagur. 3. Sérhvør óttist módur sína og fødur sinn og haldi mína hvíldardaga. Eg er Drottinn ydar Gud. 4. Snúid ydur eigi til hégómlegra afguda og gjørid ydur ekki steypta Gudi. Eg er Drottinn ydar Gud.

5. Þegar þér slátrid Drottni þakklætisfórn, þá slátrid henni þannig ad þér verdid (Drottni) velþókknanlegir: 6. Fórnin skal etast sama dag og daginn eptir, en þad sem eptir verdur til þridja dags, skal á eldi brennast. 7. Ef þaraf er etid hinn þridja dag, er fórnin Drottni viðurstyggileg og þókknast honum ekki; 8. og sá sem etur þaraf, hann skal bera sinn misgjørníng; hann hefir vanhelgad Drottins helgidóm og skal upprætast frá sínu fólki.

9. Þegar þér uppskérid ydar lands gróda, þá skaltu ekki grant uppskéra útí hvørt horn akur þinn, og ekki upptína þad sem nidur dettur í uppskérunni; 10. né þegar þú samanles vínberin í víngardi þínum, þá skaltu ekki tína upp þá á stángli (nidurdottnu) vínberjaklasa í honum. Skil þau eptir handa þeim fátæka og útlenda. Eg er Drottinn ydar Gud.

11. Þér skulud ekki stela, ljúga, eda draga svik hvør ad ødrum; 12. né sviksamlega sverja vid mitt nafn, ad þú vanhelgir nafn Guds þíns. Eg er Drottinn. 13. Þú skalt ekki med hardýdgi hafa af þínum náúnga, ekki ræna, ekki halda inni hjá þér náttlángt til næsta morguns daglaunamannsins kaupi. 14. Þú skalt ekki bølva þeim heyrnarlausa, né leggja fótakéfli fyrir þann blinda, heldur skaltu óttast þinn Gud. Eg er Drottinn. 15. Þér skulud ekki vera órádvandir í dómi, ekki líta á ástand lítilmagnans, né heidra veldi þess volduga, heldur skaltu dæma þinn náúnga med réttvísi. 16. Þú skalt ei gánga um kríng med rógburd medal þíns fólks, og ekki sækjast eptir lísi náúnga þíns. Eg er Drottinn. 17. Þú skalt ekki bera hatur til bródur þíns í hjarta þínu, heldur hardlega straffa náúnga þinn, svo þú verdir ekki sekur í synd hans vegna. 18. Þú skalt ekki hefna þín sjálfur, ekki heldur geyma reidina med þér til barna þíns fólks, heldur skaltu elska náúnga þinn sem sjálfann þig. Eg er Drottinn.

19. Mína setnínga skulud þér vardveita; ekki skaltu láta ímislega tegund þíns fénadar samblandast; akur þinn skaltu ekki sá med ímislegri sædis tegund, og eigi skaltu bera á þér klædi úr imislegu efni.

20. Ef nokkur liggur hjá konu, og hefir holdlegt samrædi vid hana, en hún er ambátt manni føstnud, en hvørki keypt úr þrældómi eda frelsi géfid, þá liggur þarvid refsíng, en þau skulu ekki deya, því hún er ekki frjáls. 21. Madurinn skal koma med sína syndafórn fyrir Drottinn, til dyra samkundu = tjaldbúdarinnar (skal hann koma med) hrút til syndafórnar, 22. og presturinn skal med syndafórnar hrútnum forlíka hann vid Gud fyrir þá synd, sem hann drýgdi, og honum mun fyrirgéfin verda sú synd, sem hann drýgdi.

V. 8. Bera misgjorníng: vera straffs sekur. V. 17. Svo ad þú med adfinningarleysinu ekki skulir líka sem samsinna hans breitni, Matth. 18, 15. f. 1 Tim. 5, 22. V. 19. Adalaugnamid þessara bodorda mun vera, ad vidhalda medal Gydínga náttúrlegum, einsøldum og hreinum sidum.

23. Þegar þér komid inní landid og gród-
ursetjid þar allslags aldintré, þá skulud þér
burtsneida aldin þess sem yfirhúd; í þrjú ár
skulud þér álíta þau sem óumskorin, ekki eta
af þeim; 24. en á fjórda árinu skal allur á-
vøxtur trjánna vera helgadur gledi hátíd fyrir
Drottni; 25. en á fimta árinu meigid þér
sjálfir njóta þeirra ávaxta og safna handa
sjálfum ydur gróda þeirra. Eg er Drottinn,
ydar Gud.

26. Ekkért skulud þér eta med blódi þess.
Ekki skaltu vera teikna útleggjari eda brúka
tøfra. 27. Eigi skaltu kríngskéra þitt høfud-
hár, né skémma þitt vángaskégg. 28. Þér
skulud ekki gjøra skurd í hold ydar fyrir dauds
manns sakir, né brenna merki á ydar líkami.
Eg er Drottinn. 29. Ekki skaltu vanhelga
dóttur þína med því ad géfa hana til saur-
lifnadar, svo ad landid hórist ei og verdi fullt
af glæpum. 30. Mína hvíldardaga skulud þér
halda, og hafa í heidri minn helgidóm. Eg
er Drottinn. 31. Farid ekki til þeirra, sem
fara til frétta af daudum, eda spásagnarmanna;
farid ei til frétta vid þá, ad þér saurgist ekki
af þeim. Eg er Drottinn, ydar Gud.

32. Þú skalt standa upp fyrir þeim grá-
hærda og heidra hinn gamla og óttast þinn
Gud. Eg er Drottinn.

33. Ef útlendur madur býr hjá þér í landi
ydar, þá sýnid honum eingan ójøfnud; 34.
heldur far med þann útlenda, sem hjá ydur
býr, eins og væri hann þér samlendur; þú
skalt elska hann sem sjálfann þig, þvíad þér
vórud líka framandi í Egyptalandi. Eg er
Drottinn, ydar Gud.

35. Þér skulud eingum órétt gjøra í dómi,
vigt og mælir, 36. réttar vogir, rétt lód, rétt
mælikérhøld og réttar kønnur skulu vera hjá yd-
ur. Eg er Drottinn ydar Gud, sem leiddi
ydur útúr Egyptalandi; 37. þar fyrir vard-
veitid alla mína setnínga og øll mín bodord og
haldid þau. Eg er Drottinn.

## 20. Kapítuli.

Um straff fyrir imsar syndir. Fyrirheit um eign Kana-
anslands, ef Gydíngar halda Guds bod.

1. En framar taladi Drottinn vid Móses
þannig: 2. Tala þú þetta til Israels barna:
Hvør madur, sem þad er af Israels børnum,
eda útlendur, er býr í Israel, er fórnfærir Mó-
lok afkvæmi sínu, hann skal dauda deya, fólkid
í landinu skal lemja hann grjóti; 3. eg vil snúa
mínu andliti gégn þvílíkum manni og upprœta
hann frá sínu fólki, fyrir þad ad hann hefir
géfid Mólok sitt afkvæmi, til þess ad hann
saurgadi minn helgidóm og vanhelgadi mitt hei-
laga nafn. 4. En ef fólk landsins sjer í gégn-
um fíngur vid þvílíkann mann, sem géfur Mólok
afkvæmi sitt og vill ekki slá hann í hel, 5. þá
vil eg setja mitt andlit gégn þvílíkum manni
og gégn hans ætt, og eg mun upprœta hann
frá hans fólki og alla þá, sem hafa, eptir hans
dæmi, elt Mólok med hórlegum hætti.

6. Ef nokkur madur snýr sér til þeirra sem
leita frétta af daudum eda spásagnarmanna,
og elta þá til ad flekast af þeim, þá vil eg setja
mitt andlit gégn þvílíkum og upprœta hann frá
sínu fólki. 7. Þér skulud helga ydur og vera
heilagir, því eg er Drottinn, ydar Gud. 8.
Vardveitid mína setnínga og hlýdid þeim, því
ad eg er Drottinn, ydar Gud.

9. Sannlega ef nokkur er sá, sem bølvar fødur
sínum eda módur, hann skal dauda deya. Fød-

I vv. 26—31 eru nefndir imsir lestir, ósidir og dáraskapur sem tídkadist medal heidinna þjóda. V. 5. Ammonitar brenndu afkvæmi sin lifandi Molok afgudi sínum til þókknunar, sjá 1 Kgb. 11, 7. 2 Kgb. 23, 10. Jerem. 32, 35. V. 9. Hans blód sé yfir honum, þ. e. hann er dauda sekur.

ur sínum eda módur sínni hefir hann bølvad; hans blód sé yfir honum!

10. Hvør sem drýgir hór med annars manns ektakvinnu, fyrir þad, ad hann hóradist med ektakvinnu náúnga síns, skal hann dauda deya, bædi hórkarlinn og hórkonan. 11. Hvør sá madur, sem legst med ektakvinnu fødur síns, hefir berad blygdan fødur síns; bædi skulu þau dauda deya, blód þeirra sé yfir þeim! 12. Sé nokkur sá, sem legst med sonarkonu sínni; svívirdíng hafa þau drýgt, þeirra blód sé yfir þeim! 13. Leggist nokkur hjá karlmanni, sem kona væri, drýgja þeir bádir vidurstygd, þeir skulu dauda deya, blód þeirra sé yfir þeim! 14. Taki nokkur konu og módur hennar líka, þad er blódskømm; menn skulu brenna hann í eldi ásamt med þeim, svo ad þvílíkur glæpur vidgángist eigi medal ydar. 15. Sá madur sem samlagar sig fénadi skal dauda deya, og gripinn skulu menn drepa; 16. og ef kona nálægir sig sképnu til ad samlaga sig henni, þá skaltu drepa bædi konuna og gripinn, þau skulu dauda deya, blód þeirra sé yfir þeim! 17. Hvør sem tekur sína systur, dóttur fødur síns eda módur sínnar og sjer hennar blygdan eda hún hans; þad er svívirdíng, þau skulu upprætast fyrir síns fólks augsýn, því hann beradi blygdan systur sínnar, og úttaka straff fyrir sínn misgjørníng. 18. Hvør sá madur sem legst med konu ámedan hún hefir sínar tídir, og berar hennar blygdan, berar hennar blódláts brunn, og hún sjálf berar sínn blódláts brunn, þau skulu bædi upprætast úr tølu síns fólks. 19. Ekki skaltu bera blygdan módursystur þinnar né fødursystur, því ef nokkur berar svo náskylda, skulu þau bera sína misgjørd. 20. Sá sem legst med konu fødurbródur síns, hann berar blygdan síns fødurbródurs, og skulu þau úttaka þeirra synda straff; þau skulu deya barnlaus. 21. Hvør sem tekur konu bródur síns, þad er skémdar verk, hann berar blygdan bródur síns; þau skulu vera barnlaus.

22. Vardveitid alla mína setnínga og hlýdid øllum mínum bodordum, svo ad landid, í hvørt eg vil innleida ydur til ad búa í, ekki skirpi ydur frá sér; 23. en þad segi eg ydur ad þér meigid ekki breita eptir vidtektum þeirra þjóda er eg mun reka út frá ydur, því þær drýgdu þetta allt, hvørs vegna mér býdur vid þeim; 24. þar fyrir sagda eg ydur: þér skulud eignast þeirra land, og ad eg vil géfa ydur þad til erfda, land þad sem flýtur af mjólk og hunángi. Eg er Drottinn, ydar Gud, sem hefi skilid ydur frá ødrum þjódum. 25. En gjørid og greinarmun á fénadi, sem er hreinn og óhreinn, og fuglum sem eru hreinir og óhreinir og saurgid ydur ekki á fénadi né fuglum, né nokkru því, sem skrídur á jørdunni, sem eg adgreindi fyrir ydur sem óhreint. 26. Þér skulud vera heilagir fyrir mér, því eg Drottinn er heilagur, og eg hefi adskilid ydur frá ødrum þjódum, til þess ad þér skulid vera mínir. 27. En ef madur eda kona skyldu vera ámedal þeirra, er særir dauda eda er tákna útleggjari, þá skulu þau dauda deya; menn skulu lemja þau grjóti, þeirra blód skal vera yfir þeim!

## 21. Kapítuli.

Ýmisleg bodord til adgjætslu prestum, og hvørjir meigi prestar vera.

1. En framar sagdi Drottinn til Móses:

V. 15. Dauda deya: optastnær vera dræpur, 2 Mós. 21, 12. 15. f. V. 21. Ad deya barnlaus: var á G. T. tímum álitid þúngt mótlæti, 1 Mós. 15, 2. 3. 30, 22. 23. 1 Sam. 1, 20. 27; þessvegna budu Mósisløg, 5 Mós. 25, 5—10. (Matth. 22, 24—26) ad bródir skuli taka ekkju bródur síns til ekta. Hér hlýtur þessvegna ad vera meint ólyfileg umgengni utan hjónabands vid ekkju bródur síns, því ef þad skédi ámedan hann lifdi var þad daudasøk.

sig þú til prestanna, sona Arons: á líki skal
eínginn ydar saurga sig ámedal síns fólks,
2. nema nánasta naúnga, módur, fødur, son-
ar, dóttur, eda bródur, 3. eda systur, sem er
mey og í húsi hjá honum, og ekki manni géf-
in; á því má hann saurga sig; 4. annars
má sá, sem er høfdíngi síns fólks, ekki saurga
sig svo hann vanhelgi sig; 5. Ekki skulu þeir
krúnuraka sig, eda raka sitt vánga skégg, eda
skéra skurd í sitt hold. 6. Þeir skulu vera
helgir fyrir þeirra Drottni og ekki vanhelga nafn
Guds þeirra, því þeir frambera eldfórnir Drott-
ins, fædu Guds þeirra; þar fyrir skulu þeir vera
heilagir. 7. Ekki skulu þeir taka sér portkonu
til ektakvinnu, eda þá sem er spjølluð, eda frá
manni skilin, því presturinn er heilagur fyrir
sínum Gudi. 8. Þar fyrir skaltu halda hann
heilagann, því hann framber fædu Guds þíns,
þarfyrir er hann heilagur; Eg er Drottinn
sem helgar ydur. 9. Ef nokkur prestsdóttir tek-
ur ad fremja saurlifnad, vanhelgar hún fødur
sinn; hún skal í eldi brennast.

10. En sá prestur, sem eldstur er brædra
sinna, yfir hvørs høfud smurníngar vidsmjør-
inu hefir verid hellt, og sem hefir tekid vígslu
svo hann íklæddist þeim helga skrúda, hann má
hvørki bera høfud sitt, né rýfa sín klædi, 11.
og ekki má hann koma til nokkurs dauds manns
líks, hann má ekki vegna fødur síns eda módur
sinnar saurga sig, 12. og ekki má hann útúr
helgidóminum gánga, ad hann ekki vanhelgi
helgidóm Guds síns, því hann ber krónu vígslu-
vidsmjørs Guds síns. Eg er Drottinn. 13.
Hann skal taka sér mey til eiginkonu; 14. hvørki
ekkju eda þá sem er frá manni skilin, né spjall-
ada eda portkonu, eingar þessar má hann taka
sér til eiginkonu, heldur skal hann taka sér til
eiginkonu mey af sínu fólki, 15. ad hann ekki
vanhelgi ætt sína medal fólks síns, því eg er Drott-
inn, sem helga hann.

16. En framar taladi Drottinn vid Móses
þannig: 17. Tala þú þetta til Arons: ef nokk-
ur madur af þínum afkomendum, í þeirra kyn-
kvíslum, hefir einhvør lýti á sér, hann má ekki
nálægja sig til ad frambera fórnir síns Guds;
18. Eínginn madur, sem hefir á sér nokkur lýti
má nálægja sig, sem er blindur, eda halltur,
flatnefjadur, lángeyrdur, 19. sem hefir galla
á hendi eda fæti, 20. eda er keinghryggjadur,
teingslulega grannur, hefir vagl á auga, eda
þura eda vota kláda, eda mist hefir manndóm
sinn. 21. Eínginn prestur af Arons afkomendum,
sem hefir (þvílík) lýti, má frambera eldfórnir
Drottins; þad eru lýti á honum, þess vegna má
hann ekki nálægja sig, til ad frambera fædu
síns Guds; 22. þó má hann eta af fædu síns
Guds, bædi þeirri háheiløgu og heiløgu; 23.
en ekki má hann koma inn til fortjaldsins, né
nálægja sig altarinu af því á honum eru lýti,
ad hann eigi vanhelgi mína helga dóma; Eg
Drottinn er sem helga þá.

24. Og Móses taladi allt þetta til Arons,
sona hans, og allra Israels barna.

## 22. Kapituli.

Presta log. Hvornig fórnadýrin ættu ad vera.

1. Enframar taladi Drottinn þannig vid
Móses. 2. Bjód þú Aron og sonum hans,
ad þeir haldi sér frá því, sem Israels børn
hafa helgad, því sem þeir helga mér, og vanhelgi
ekki mitt heilaga nafn. Eg er Drottinn.

V. 5. Allt sorgarmerki 19, 27. 28. V. 9. 5 Mós. 22, 21. 24. Jóh. 8, 5. Líklega átti ad brennast eptir ad hún var grýtt (Jós. 7, 25) henni til meiri vanvirdu. Sumir þannig líflátnir vóru heingdir á tré, 5 Mós. 21, 22. 23. Gal. 3, 13. V. 12. Ekki gánga út úr helgidómnum, þ. e. yfirgéfa þjónustu sína fyrir sorgar sakir. V. 14. Þetta skuldbindandi fyrir alla presta eptir Esek. 44, 22. V. 18. Nálægja sig, þ. e. helgidómnum. V. 22. Þó hann mætti ekki vera prestur, mátti hann hafa hlutdeild í því, sem prestunum bar af fórnunum, sér til uppeldis.

3. Nefnilega, seg þú þeim: hvør madur í ydar ætt, af ydar afkomendum, sem, ámedan hann er óhreinn, nálægir sig því sem heilagt er, sem Ísraels børn hafa helgad Drottni, hann skal upprætast frá mínu augliti. Eg er Drottinn. 4. Hvør af afkomendum Arons, sem hefir líkþrá, ellegar sádfall, má ekki eta af því, sem heilagt er, þángad til hann er ordinn hreinn, og ekki heldur sá sem snert hefir þad sem af líki er saurgad; 5. né sá sem snert hefir skridkvikindi, sem gat saurgad hann, eda mann sem saurgar hann, af hvørju helst sem hann er ordinn óhreinn. 6. Sá sem snertir þvílíkt er óhreinn til kvølds, og má ekki eta af því, sem heilagt er, nema hann laugi líkama sinn í vatni. 7. Þegar sólin er undirgeingin þá er hann hreinn, og eptir þad má hann eta af því heilaga, því þad er hans fæda. 8. Þad sem sjálfdaudt er, eda dýrbitid má hann ekki eta, ad hann ekki saurgist af því. Eg er Drottinn. 9. Þeir skulu halda þad sem eg hefi bodid þeim ad halda, ad þeir ekki hladi sig syndum og deyi í þeim, vegna þess þeir hafa vanhelgad sig. Eg er Drottinn sem helga þá.

10. Einginn útlendur má eta hid heilaga; sá sem hefir húsnædi hjá prestinum eda er daglaunamadur hans, má ekki eta þad sem heilagt er; 11. en sá sem hann hefir fyrir sína peninga keypt, má eta þaraf, og eins sá heima fæddi (þræll,) þeir meiga eta fædu prestsins. 12. En prestsdóttirin, ef hún giftist útlendum manni, hún má ekki eta af þeim helgu upplyptingar fórnum. 13. En ef prestsdóttirin verdur ekkja, eda rekin burt af manni sínum, á ekkert afkvæmi, og snýr aptur í hús fødur síns, og er þar eins og hún var í æsku sinni, þá má hún eta af fædu fødur síns; en eingin framandi má af henni eta. 14. En ef einhvør af vangá etur þad sem heilagt er, þá skal hann aptur bæta prestinum þad og fimtúng framyfir; 15. svoad Ísraels børn vanhelgi ekki þad sem þau hafa helgad, þad sem (prestarnir) hafa upplypt fyrir Drottinn; 16. og ekki ofþýngi sig sjálf med misgjørdum og sekt med því ad eta þad sem þau hafa helgad, því eg er Drottinn, sem helgar þau.

17. En framar taladi Drottinn þannig vid Móses: 18. Tala þú til Arons, sona hans og allra Ísraels barna og seg þeim: Hvør helst af húsi Ísraels eda útlendum á medal Ísraels, sem vill frambera fórnargáfu, annadhvørt eptir heiti eda af løstugum vilja til þess menn færi þad Drottni sem brennifórn, 19. til þess ad þér verdid honum velþóknanlegir, þá sé þad (hann kémur med) karlkyns og lýtalaust, af nautum, saudfé eda geitfé. 20. Þad sem nokkur lýti eru á skulu þér ekki koma med, því þad aflar ydur ekki velþóknunar. 21. Sømuleidis, hvør sem vill færa Drottni þakklætisfórn til ad efna heit sitt, eda af løstugum vilja, hvørt þad er af nautum eda smáfénadi, þá sé þad lýtalaust til þess þad verdi velþóknanlegt; eingin lýti séu á því. 22. Þad sem er blindt, beinbrotid, sært, med útbrotum, skurfum eda kláda, þvílíkt skulud þér ekki færa Drottni, eda láta nokkud þvílíkt á hans altari. 23. Nautkind eda saudkind, sem hefir einhvørn lim í leingra eda styttra lagi, máttu koma med sem fórnfærda af løstugum vilja, en sem heitfórn aflar þvílíkt ekki hylli. 24. Þér skulud ekki færa Drottni þad (dýr) sem vanad er, hvørt heldur þad hefir gjørt verid med kramníngi, marníngi, burttekt eda skurdi; í ydar landi meigid þér ei þetta gjøra. 25. Ekki skulud þér taka vid nokkru þvílíku af hendi þess útlenda og frambera sem fædu ydvars Guds, því þad hefir

V. 3. Þ. e. af presta ætt.

skémd í sér og lýti og aflar ydur eingrar hylli.

26. En framar taladi Drottinn þannig til Móses: 27. Þegar kálfur, lamb, eda kid fædist, þá skal þad vera í sjø daga hjá módur sinni, en á áttunda degi og eptir þad, er þad þakknæm fórnargáfa, eldfórn Drottni. 28. Nautkind eda saudkind ásamt afkvæmi þess, skulud þér ekki slátra á sama degi. 29. Ef þér viljid slátra lofgjørdarfórn, svo slátrid því sem gjørir ydur velþóknanlega; 30. á sama degi skal hún etast og ekkért skulud þér leifa af henni til morguns. Eg er Drottinn! 31. Vardveitid mín bodord og hlýdid þeim. Eg er Drottinn! 32. Vanhelgid eigi mitt heilaga nafn, svo ad eg haldist heilagur ámedal Ísraelsbarna. Eg er Drottinn sem ydur helgar, 33. og hefi leidt ydur utúr Egyptalandi til þess eg vera skyldi ydar Gud. Eg er Drottinn!

## 23. Kapítuli.

Log um Sabbatsdaginn og adrar hátídir Gydínga*).

1. Og en framar taladi Drottinn til Móses: 2. Tala þú til Ísraelsbarna og seg þeim: Hátídir Drottins hvørjar þér skulud úthrópa, sem heilagar, eru þessar mínar hátídir: 3. Sex daga skulu verk vinnast, en á þeim sjøunda degi er hvíldardags hvíld, heiløg samankøllun, ekkért verk skulud þér vinna á þeim degi; þad skal vera hvíldardagur Drottins í øllum ydar hýbýlum. 4. Þessar eru hátídir Drottins, heilagir samhrópunar (dagar), er þér á tilteknum tídum skulud úthrópa: 5. Á fjórtánda degi fyrsta mánadarins, ámilli tveggja aptna byrja páskar Drottins, 6. og á þeim fimtánda degi sama mánadar byrjar ósyrdra brauda hátíd Drottins; í sjø daga skulud þér eta ósýrt braud. 7. Á fimtánda deginum skal hjá ydur vera heiløg samankøllun; ekkért þrældómsverk skulud þér þá vinna; 8. í sjø daga skulud þér Drottni eldfórnir færa og á þeim sjøunda degi er heiløg samankøllun, þér skulud þann dag ekkért þrældóms verk vinna.

9. En framar taladi Drottinn þetta til Móses: 10. Tala þú til Ísraelsbarna og seg þeim: þegar þér komid inní þad land, sem eg géf ydur, og uppskérid þess korn, þá skulud þér færa prestinum bindini, frumgróda, ydar uppskéru. 11. Þessu bindini skal presturinn veifa fyrir augliti Drottins, svo ad þér verdid honum þóknanlegir, daginn eptir hvíldardaginn skal hann veifa því. 12. Á þeim degi, sém þér veifid bindininu, skulud þér færa Drottni til brennifórnar ársgamlann hrút, lýtalausann; 13. sømuleidis sem fórnargáfu tvo tíundu parta hveitimalads mjøls, vidsmjøri døggvads, sem eldfórn fyrir Drottinn, honum til sætleiks ilms, og þartil heyrandi drykkjarfórn fjórdapart híns. 14. Allt til þess sama dags meigid þér ekki

V. 27. 28. Fleiri lagabod bjóda vægd vid sképnur, 2 Mós. 23, 5. 12. 5 Mós. 22, 4 — 7 Omiskunsemi vid dýr kénnir ómiskunsemi vid menn.

*) Lagabod um hvíldardaginn sjá 2 Mós. 20, 9—11. 31, 14—17. 35, 2. 3. 5 Mós. 5, 12—15. Þær hér nefndu 3 stórhátídir stódu heila viku, sjá 2 Mós. 23, 14—17. 34, 18. 22. 23. sá fyrsti og sídasti dagur vóru helgastir og hvildardagur sá er innféll á milli þessara daga. Um Páska (þakklætishátíd fyrir frelsi Gydinga frá Egyptalandi) v. 5—14. sbr. 2 Mós. 12, 1—28. 4 Msb. 9, 3—14. Hvítasunnuh. (korn uppsk. h.) v. 15—22. sbr. 4 Mós. 28, 26—31. 5 Mós. 16, 9—12. Laufskálah. (þakklætish. fyrir vernd Guds þá bjuggu í laufskálum; fyrir uppskéru aldina og víns) v. 33—43. sbr. 4 Mós. 29, 12—34. 5 Mós. 16, 13—16. Nehem. 8. 14. Auk þessa vóru túnglkomu hátídir á hvørjum mátti vinna, nema á Básúnu blásturs hátídinni (v. 23—25). Med henni byrjadi mánudurinn Tisri. Í sama mánudi var sá stóri Forlíkunardagur (v. 27—32). Allir mánudir byrjudu med nýu túngli.

V. 2. Þad sem øllum átti ad vera kunnugt var úthrópad af hús = þøkum, sem vóru fløt. Þannig var fólk samankallad til hatída, þaraf vor hringing. V. 5. Dagur reiknast hjá Gydingum frá sólarlagi til sólarlags, sem eptir sólarhæd í Gydingalandi alla tíma ársins, svarar til vors midaptans. Milli tveggja aptna, sjá skgr. 2 Mós. 16, 12. V. 13. Hin: hérumbil 337 ténings (cubik) þumlúngar innanmáls, sama sem $\frac{1}{6}$ Bats. Hvørutveggja lagar mælir.

eta brand, steikt ax né nýtt korn, ekki fyrrenn þér hafid Gudi ydar fært ydar fórnargáfu. Þetta skal vera ævarandi vidtekt í ydar ætt-kvíslum, hvar sem þér búid.

15. Frá ødrum degi hátídarinnar, frá þeim degi sem þér hafid komid med veifíngar bind-inid, skulud þér telja sjø vikur, þær skulu vera óskértar, 16. til næsta dags eptir sjøunda hvíld-ardaginn skulud þér telja fimtýgi daga; þá skulud þér færa Drottni fórnargáfu af nýu (korni); 17. med tvø veifíngar braud, gjørd úr tveimur tíundu pørtum (Efa) hveitimjøls bøk-ud med súrdeigi, skulud þér koma frá ydrum heimilum, sem sé frumgróda fórn fyrir Drott-inn, 18. og ásamt med braudinu skulud þér framkoma med sjø ársgamlar saudkindur lýta-lausar, og einn úngan bolakálf og tvo hrúta. Þetta skal vera brennifórn fyrir Drottinn og þaradauk þartil heyrandi matar- og dreypi-fórn. Þad er eldfórn Drottni til sætleiks ilms. 19. Sømuleidis skulud þér færa einn kjarnhaf-ur til syndafórnar og tvø ársgømul lømb til þakklætisfórnar. 20. Þeim skal presturinn veifa sem veifíngarfórn fyrir augliti Drottins, ásamt frumgróda braudinu og ásamt þeim tveimur lømbum, og skal þad vera Drottni helgad handa prestinum. 21. Á þessum sama degi skulud þér úthrópa, ad hann skuli vera helgur samau-køllunar (dagur) hjá ydur, og ekkért þrældóms-verk meigid þér vinna. Þetta skal vera ævar-andi løgmál hjá øllum ydar eptirkomendum, hvar sem þér búid.

22. En nær þér uppskérid ydar lands gróda, þá skaltu ekki nákvæmlega uppskéra akur þinn útí hvørt horn, né samanlesa þau nidurdottnu vínber; skildu þad eptir handa þeim fátæka og útlenda. Eg er Drottinn, ydar Gud.

23. En framar taladi Drottinn vid Móses þannig: 24. Tala þú til Israelsbarna og seg þeim. Sá fyrsti dagur í þeim sjøunda mánudi skal vera hvíldardagur hjá ydur, þér skulud þá halda básúnu-blásturs hátídina, hún skal vera heilagur samankøllunar dagur; 25. ekkért þræl-dóms verk meigid þér á henni vinna, og þér skulud Drottni eldfórnir færa.

26. Og en framar taladi Drottinn þannig vid Móses: 27. Tíundi dagur sjøunda mánadarins, sá dagur, sem er forlíkunardagurinn, skal sann-lega vera ydur heilagur samankøllunar dagur, þér skulud á honum þjá ydar sálir og færa Drottui eldfórnir; 28. einga vinnu skulud þér á þeim degi vinna, þvíad hann er forlíkunar-dagurinn til ad forlíka ydur vid Drottinn, yd-ar Gud; 29. hvør sá, sem ekki þjáir sig á þessum degi, skal uppprætast frá sínu fólki; 30. og hvørn þann, sem gjørir nokkra vinnu á þessum sama degi, hann vil eg afmá úr (tølu) síns fólks; 31. ekkért verk meigid þér vinna. Þetta skal vera ævarandi løgmál hjá ydar ept-irkomendum, hvar sem þér búid. 32. Hvíld-ardags hátídleg hvíld skal þessi dagur vera ydur, og ydar sálir skulud þér þjá; á níunda degi mánadarins ad kvøldi, frá aptni til apt-ans, skulud þér halda þennann ydar hvíldardag.

33. Og en framar taladi Drottinn þannig til Móses: 34. Tala þú þannig til Israels barna: á fimtánda degi þessa (sama) sjøunda mánadar, er laufskála-hátíd í sjø daga fyrir Drottni. 35. Á fyrsta deginum skal vera hei-løg úthrópun, ekkért þrældóms verk megid þér þá vinna. 36. Í sjø daga skulud þér fram-bera eldfórnir fyrir Drottinn; á áttunda degin-um skal vera heiløg úthrópun hjá ydur, þér skulud frambera eldfórnir fyrir Drottinn, þad

---

V. 18. Hvad mikil matfórn og dreypifórn (þ. e. vin) fylgja átti hvørri blódugri fórn, sjá 4 Mós. 28 og 29 Kpp. Sérhvør fórn, sem á altarid kom, atti med salti saltast, 2, 13. Mark. 9, 49. Reykelsi átti og ad fylgja med til sætleiks ilms. V. 26. Sjá allann Kap. 16. V. 29. Þjá sig, sýna sorgarmerki vegna þeirra synda.

er samankøllunar (dagur), ekkért þrældóms verk
megid þér þá vinna. 37. Þetta eru Drottins
hátídir, hvørjar þér skulud úthrópa, heilagir
samankøllunardagar til þess þér skulud frambera
Drottni eldfórnir, brennifórnir, matfórnir, slát-
urfórnir og dreypifórnir, á hvørjum degi þad,
sem þeim degi tilheyrir; 38. auk Drottins hvíld-
ardaga (fórna), matfórna, heit (fórna) og frí-
viljugra (fórna) ydar, sem þér skulud géfa
Drottni. 39. Sannlega á þeim fimtánda degi
þess sjøunda mánadar, þá þér hafid samansafn-
ad landsins gróda, skulud þér halda gledihá-
tíd Drottins í sjø daga. Á fyrsta deginum er
hvíldarhátíd og áttunda deginum hvíldarhátíd,
40. á þeim fyrsta degi skulud þér taka med
ydur aldini af þeim føgru trjám, pálmavidar
greinir, og greinir af þeim þéttlaufgudu trjám,
og píl sem hjá lækjum sprettur; og gledja ydur
fyrir augliti Drottins, ydar Guds í sjø daga;
41. þér skulud árlega halda Drottni þessa gledi-
hátíd. Þad skal vera ævarandi løgmál hjá
ydar eptirkomendum, ad þér haldid þessa gledi-
hátíd í sjøunda mánudinum. 42. Sjø daga
skulud þér í laufskálum búa; hvør sem er inn-
lendur í Ísrael, skal búa í laufskálum, 43. svo
ad ydar eptirkomendur megi vita, ad eg lét
Ísraels børn búa í laufskálum, þá eg leiddi þau
útúr Egyptalandi. Eg er Drottinn, ydar Gud!
44. Og Móses bodadi Ísraels børnum þessar
hátídir Drottins.

## 24. Kapítuli.

Løgmál um ljósastjakana og skodunarbraudin. Gud-
last, manndráp og s. frv.

1. Enframar taladi Drottinn vid Móses
og sagdi: 2. Bjód þú sonum Ísraels ad þeir
færi þér tært vidsmjørsvidar smjør af spreingd-
um vidsmjørsvidar berjum til ljósastjakanna, svo
á lømpunum ætíd logi; 3. fyrir framan fortjald
løgmálsins í samkundu tjaldbúdinni skal Aron
sjá um ad ljósin á þeim ætíd logi fyrir augliti
Drottins, frá kvøldi til morguns. Þetta skal
vera ævarandi løgmál hjá ydar eptirkomendum.
4. Daglega skal hann rada ljósunum, sem eru
fyrir augliti Drottins ofaná þá føgru ljósastjaka.

5. Sømuleidis skaltu taka hveitimjøl, og baka
af því tólf køkur, tveir tíundupartar (Efa) skulu
vera í hvørri køku, 6. og þær skaltu leggja í
tvær radir, sex í rødina, á þad fagra bord fyr-
ir augliti Drottins, 7. og láta hjá hvørri rød
hreint reykelsi, til fædu, minníngarfórnar, eld-
fórnar fyrir Drottinn. 8. Á hvørjum hvíld-
ardegi skal (ædsti presturinn) þannig æfinlega
rada fyrir augliti Drottins þessum (køkum),
sem Ísraels børn skulu tilleggja. Þetta er ei-
líft løgmál; 9. og þær séu fyrir Aron og syni
hans, er eti þær á helgum stad, því þær eru
háheilagar medal eldfórna Drottins. Þetta er
ævarandi løgmál.

10. En þad skédi, ad madur nokkur, sonur
ísraelítskrar kvinnu, en ad faderni egyptskur, er
bjó ámedal Ísraels barna, gékk út, og ad þessi
sonur þeirrar ísraelítisku kvinnu og einn af Ís-
raels mønnum komu í þrætu í herbúdunum, 11.
og ad sonur þeirrar ísraelítisku kvinnu formældi
Nafninu og lastadi þad. Nafn módur hans
var Skelomit, og var dóttir Dibrí af Dans ætt-
kvísl. Menn leiddu hann því til Móses, 12.
og settu í vardhald, þartil munnur Drottins
úrskurdadi um þá; 13. en Drottinn gaf Mósis
þennan úrskurd: 14. leid þú lastarann útfyrir
herbúdirnar, og leggi allir þeir, sem áheyrsla
hafa verid, hendur sínar á høfud honum og all-
ur søfnudurinn lemji hann grjóti. 15. En øll-

V. 2. Um ljósa stjakana, sjá 2 Mós. 25, 31—40. 40, 24. V. 3. Fortjald løgmálsins var á milli þess helgasta og allra helgasta, 2 Mós. 25, 10—21. 40, 20. 21. Frá sáttmáls arkarlokinu taladi Gud vid Móses, 2 Mós. 25, 22. 4 Mós. 7, 89. V. 6. 2 Mós. 25, 23—30. 40, 22. 23. Braudin tilheyrdu prestunum þegar þau høfdu legid í viku á bordinu og ný vóru komin í stadin. V. 11. Nafninu, þ. e. Drottins nafni.

um Ísraels børnum skaltu kunngjøra: ad hvør sá madur, sem formælir Gudi sínum, skuli bera sína misgjørd, 16. sá sem formælir nafni Drottins skuli fortakslaust deya, allur søfnudurinn skuli fortakslaust lemja hann grjóti; svo vel sá útlendi sem innlendi skulu, ef hann formælir Nafninu, deya.

17. Hvør sem slær nokkurn mann í hel, skal vægdarlaust deya; 18. en ef hann drepur sképnu skal hann bæta ad fullu, grip fyrir grip; 19. en sá sem gjørir náunga sínum áverka honum skal ské sama, sem hann hefir hinum gjørt: 20. meidsli fyrir meidsli, auga fyrir auga, tønn fyrir tønn, sá sami áverki sem hann hefir gjørt ødrum manni, skal honum apturámót gjørast sjálfum. 21. Sá sem drepur grip, skal bæta hann ad fullu, en sá sem drepur mann skal deya. 22. Sama løgmál skal vera hjá ydur gildandi fyrir þann útlenda sem þann innlenda, því ad eg er Drottinn, ydar Gud. 23. Og Móses kunngjørdi þetta Ísraels børnum, og menn fóru med þann, sem formælt hafdi, útfyrir herbúdirnar, svo ad menn lemdu hann grjóti; og Ísraelsbørn gjørdu eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

## 25. Kapítuli.

Um hvíldar árid og fagnadar árid.

1. Og Drottinn taladi enframar vid Móses á fjallinu Sínaí þannig: 2. Tala þú til Ísraels barna og seg þeim, ad þegar þau koma inní landid, sem eg géf ydur, þá skal landid halda Drottni hvíld. 3. Sex ár skaltu sá þinn akur og sex ár klippa þinn víngard og innsafna hans gróda; 4. en á sjøunda árinu skal vera hátídleg hvíld, hvíld Drottni (til dýrdar); akur þinn skaltu þá ekki sá, og þinn víngard ekki klippa; 5. það korn, sem vex eptir þína haustyrkju af sjálfu sér, skaltu ekki uppskéra, og vínber þess óklipta vínvidar skaltu ekki taka; landid skal hafa hátídlega hvíld; 6. það sem landid í hvíld sinni (géfur) ydur til fædu, það skal vera handa þér, þínum þræli, þinni ambátt, þínum daglaunamanni, og þeim útlendu sem búa hjá þér, 7. og handa þínum fénadi og villudýrunum sem eru í þínu landi; allur gródinn skal vera þessu til fædu.

8. Þú skalt telja sjø hvíldar ár, sjø sinnum sjø ár, svo ad tími þeirra sjø hvíldar ára verdi níu ár og fjørutíu, 9. þá skaltu á þeim tíunda degi þess sjøunda mánadar láta básúnuna gélla, á forlíkunar deginum skulud þér láta básúnuna hljóma um allt ydvart land, 10. og halda heilagt það fimtugasta ár, og úthrópa frelsi í landinu fyrir alla þá, sem búa í því; það skal vera ydur fagnadar ár, því þá skal hvør koma aptur til síns ódals, og hvør snúa aptur til sinnar ættar. 11. Hid fimtugasta ár skal vera ydur fagnadar ár; þér skulud ekki sá og ekki uppskéra það, sem vaxid hefir af því nidur fallna sædi, né lesa vínber af því óklipta víntré; 12. því það er fagnadar ár, það sé ydur heilagt; þér skulud eta af merkurinnar gróda. 13. Á þessu fagnadar ári skal hvør koma aptur til síns ódals. 14. Þegar þér seljid nokkurn hlut náunga ydar, eda kaupid af honum, þá skal einginn ásælast sinn bródur; 15. eptir tølu áranna (sem lidin eru) frá fagnadar árinu skaltu kaupa af þínum náunga,

V. 17. 2 Mós. 21, 12. ff. V. 3. Klippa: menn burtsneida kvistu af aldintrjám og toppa greina, þó sérdeilis af vínvid, svo vøxturinn leggist til ávaxtarins. V. 5. Ad hvíla akurinn gjørir hann ardmeiri. Paradauki átti hvíldar árid, minna á sképunarverkid eins og hvíldardagurinn 1 Mós. 1, 1 — 3. 2 Mós. 20, 11. V. 6. Géfur: sjálfkrafa. V. 10. Fagnadar árid var hvørt 50ta ár; hvíldar árid hvørt sjøunda, því sjøsinnum sjøunda var sleppt, eda 49da. Á fagnadar árinu fékk hvør jørd sína aptur kauplaust, sem hann hafdi selt, eda hans erfingjar, því ardur hennar var búinn ad betala hennar verd. Þeir sem í þrældóm høfdu komist af Gydingum vegna einhvørra orsaka, (sjá, 2 Mós. 22, 3. 2 Kóngb. 4, 1. Matth. 15, 25) urdu lausir á því, 2 Mós. 21, 2 — 11. eins og á hvørju ødru hvíldar ári,

eptir áratølu gródans skal hann selja þér. 16. Eptir tiltølu, sem árin eru fleiri eptir, skaltu láta verdid hækka, og eptir sem þau eru færri lækka, því þad er eptir tølu uppskéranna hann selur þér. 17. Einginn ásælist sinn náúnga, heldur skaltu óttast þinn Gud, því eg er Drottinn ydar Gud. 18. Þér skulud gjøra eptir mínum setníngum og vardveita mín bodord og breita eptir þeim; þá skulud þér óttalausir búa í landinu; 19. landid skal géfa ydur sinn gróda, og þér skulud hafa gnægd ad eta, og ugglausir búa í því. 20. Og ef þér spyrjid: hvad skulum vér eta á því sjøunda ári, sjá! vér meigmu ekki sá, og ekki safna vorum gróda? 21. þá vil eg láta mína blessun svoleidis í té á sjøtta árinu, ad landid géfi gróda fyrir þrjú ár, 22. svo ad þegar þér sáid á því áttunda ári, þá skulud þér eta af þeim forna gróda; allt þángad til gródi níunda ársins er kominn, skulud þér eta hinn forna (gróda).

23. Landid máttu ekki afsala þér ad fullu, því ad landid er mitt; þér erud framandi, en búsettir hjá mér; 24. en í øllu ydar eignarlandi skulud þér eptirláta erfíngjanum (innlausnar rétt) landsins. 25. Ef fé þrýtur svo fyrir náúnga þínum, ad hann verdur ad selja af eign sinni, þá skal erfínginn, náfrændi hans, koma og leysa þad, sem þinn náúngi hefir selt; 26. en hafi hann eingann erfíngja, en hann sjálfur hefir útveg til ad géta greidt lausnar verdid, 27. þá skal hann reikna árin frá því hann seldi, og gjalda þad sem eptirstendur þeim manni, sem hann seldi, og þá kémur hann til ódals síns aptur. 28. En hafi hann ekki efni til ad leysa til sín ódal sitt, þá skal sá sem keypt hefir halda því selda til fagnadar ársins, en þá geingur þad úr eigu hans, og hinn skal þá aptur koma til sinnar eignar. 29. En selji nokkur íbúdarhús í múrgyrdtri borg, skal hann hafa heils árs frest til ad leysa þad aptur, svo leingi hefir hann innlausnar rétt; 30. en leysi hann þad ekki aptur fyrrenn allt árid er lidid, þá haldi kaupandinn og hans eptirkomendur húsinu í þeirri múrgyrdtu borg med fullum afsals rétti; þad gángi ekki úr kaupandans eign á fagnadar árinu. 31. En hús í þorpum sem ekki eru múri gyrdt, þau skulu menn reikna til akurlendis; þau skulu standa til lausnar, á fagnadar árinu skulu þau fara úr kaupandans eign. 32. En stadir Levítanna og hús í þeim stødum sem þeir eiga, standa til ævarandi lausnar fyrir Levítana. 33. Brigdi madur af Levíta eptir brigda rétti, þá geingur hid selda hús í hans eignar borg (til baka) úr eigu hans á fagnadar árinu; þvíad húsin í Levítanna borgum eru þeirra eign ámedal Israels barna. 34. En mørkin, beitiland borga þeirra, má ekki seljast, hún er þeirra ævarandi eign.

35. Ef þinn bródir kémst í fátækt og fé hans geingur til þurdar hjá þér, þá skaltu adstoda hann, þó hann sé útlendur og framandi, svo ad hann géti lifad hjá þér; 36. þú skalt ekki taka af honum rentu edur aukagjøld, heldur skaltu óttast þinn Gud, svo ad þinn bródir meigi lifa hjá þér. 37. Þú skalt ekki fá honum fé þitt á rentu eda hjálpa honum um matvæli med okri. 38. Eg er Drottinn ydar Gud, sem leiddi ydur út af Egyptalandi til þess ad eg gjæfi ydur Kanaansland, svo ad eg væri ydar Gud.

39. Ef ad bródir þinn kémur í fátækt hjá þér og selur sig þér, þá skaltu ekki leggja á hann

---

V. 16. Árin fleiri: til fagnadar ársins. V. 34. Sbr. 4 Mós. 35, 1—8. V. 39. Med þræla var í fornøld farid sem gripi, og er enn þar sem þrældómur vidheldst. Mósis løg sýndu nokkra vægd: 2 Mós. 20, 10. 21, 20. 21. 5 Mós. 5, 14—15. 12, 17. 18. útlendum þrælum; med Hebreska þræla skipa þau ad fara sem daglauna menn. Sjá ennfremur Skgr: til v. 10.

(ánaudugs) þræls vinnu; 40. hann skal vera hjá þér sem daglauna-madur, og framandi; til fagnadar ársins skal hann þjóna þér, 41. en þá skal hann fara frá þér og synir hans med honum, og hverfa til sinnar ættar, til eignar fedra hans skal hann aptur hverfa; 42. þeir eru mínir þjónar, sem eg hefi útleidt af Egyptalandi, þeir meiga ekki seljast, sem ánaudugir þrælar; 43. og þú mátt ekki ómiskunsamlega drottna yfir þeim, heldur skaltu óttast þinn Gud. 44. En ef þú vilt fá þér ánauduga þræla og ambáttir, þá skulud þér kaupa ydur þræla og ambáttir af þjódum þeim, sem í kríngum ydur búa; 45. líka børn þeirra framandi og útlendu, sem búa hjá ydur, og børn af ætt þeirra, sem eru hjá ydur, er þeir hafa átt í ydar landi, þau meiga vera ydar eign; 46. þau meigid þér láta eptir ydur í arf børnum ydar til eignar og hafa þau sem æfinlega þræla; en yfir ydar brædrum, Israels børnum má einginn hardlega drottna. 47. En ef sá útlendi, sá framandi sem býr hjá þér, audgast, og bródir þinn kémst í fátækt hjá þér og selur sig til þess útlenda, sem er búsettur hjá þér, ellegar til nokkurs af útlendri ætt sem hefir feingid bólfestu, 48. þá skal hann hafa lausnar rétt eptir þad ad hann er seldur, einhvør af ættíngjum hans skal leysa hann; 49. annadhvørt fødurbródir eda brædrúngur, eda einhvør náfrændi, af hans ætt, eda ef hann sjálfur fær efni á því, þá hefir hann rétt til lausnar, 50. og hann skal þá reikna vid þann, sem keypti hann, frá því ári á hvørju hann var seldur til fagnadar ársins, og verdid sem hann var seldur fyrir skal skiptast á árin, en hann skal álítast eins og hann hefdi verid daglauna madur hjá honum. 51. Séu mørg ár eptir, skal hann eptir tiltølu gjalda fyrir lausn sína meira af verdinu, sem hann var keyptur fyrir; 52. en séu fá ár eptir til fagnadar ársins, skal hann reikna honum þad; eptir áratølunni skal hann gjalda fyrir sína lausn. 53. Ár frá ári skal hann medfarast sem daglauna madur hjá honum, og ekki skal hann med hardýdgi drottna yfir honum fyrir þínum augum. 54. En ef hann ekki leysist med þessum hætti, fari hann samt úr (þrældómnum) á fagnadar árinu, og børn hans med honum; 55. því Israelsbørn eru mínir þjónar, mínir þjónar eru þeir, sem eg leiddi útaf Egyptalandi. Eg er Drottinn ydar Gud.

## 26. Kapítuli.

Bønnud afgudadýrkun. Fyrirheit um Drottins blessun ef þeir hlýda hans bodum, en hótun allsslags óhamíngju ef þeir yfirtrodi þau.

1. Þér skulud ekki gjøra ydur afgudi né bílæti, og ekki heldur uppreisa ydur mindar stólpa, né tilbúa mindar steina til ad tilbidja þesshátttar; þvíad eg er Drottinn ydar Gud. 2. Mína hvíldardaga skulud þér vardveita, og fyrir mínum helgidóm skulud þér virdíngu bera. Eg er Drottinn ydar Gud. 3. Ef þér breitid eptir mínum setníngum og vardveitid mín bodord og gjørid eptir þeim, 4. þá vil eg géfa ydur regn á hæfilegum tíma, og landid skal géfa ydur sinn gróda og trén á mørkinni þeirra ávøxt. 5. Presskíngar tíminn skal þá vara til vínyrkjunnar, og vínyrkjan til sádtímans; þér skulud eta ydur metta af ydar eigin braudi og búa óhultir í ydar landi, 6. eg vil géfa frid í landinu, svo þér gétid hvílt ydur og einginn skal hræda ydur; óarga dýrum vil eg halda frá ydar landi, og sverdid skal ekki fara um þad. 7. Þér skulud elta ydar óvini og

V. 5. Kornskéran endadi seint í Maió, vínyrkjan byrjadi í September; Sádtíminn var í Nóvember og December. Ad presskíngin varadi til vínyrkjunnar og vínyrkjan til sádtímans var ársældar merki. Somuleidis var þad nægta merki ad kornid komst ekki fyrir í kornhlødunum sbr. v. 10.

þeir falla fyrir sverdi fyrir ydar augliti; 8. fim af ydur skulu elta hundrad, og hundrad af ydur skulu elta tíu þúsund og óvinir ydar skulu falla fyrir sverdi fyrir ydar augliti. 9. Eg vil snúa mínu augliti til ydar, gjøra ydur ávaxtarsama og fjølmenna, og stadfesta minn sáttmála vid ydur. 10. Þér skulud eta hid firnta korn, og bera út hid firnta korn frá því nýa. 11. Eg vil setja mína tjaldbúd midt á medal ydar, og mína sálu skal ekki stugga vid ydur; 12. eg vil gánga midt á medal ydar, og vera ydar Gud, og þér skulud vera mitt fólk. 13. Eg er Drottinn, ydar Gud, sem leiddi ydur útaf Egyptalandi, til þess þér skyldud ekki vera þeirra þrælar, og braut af ydur þrældóms okid, svo ad þér skyldud upprèttir gánga.

14. En ef þér hlýdid mér ekki, og ekki breitid eptir øllum þessum mínum bodordum; 15. ef þér skeytid ekki mínum setníngum, og ydur stuggar vid mínum réttindum, svo ad þér gjørid ekki eptir mínum bodordum, heldur brjótid minn sáttmála; 16. þá vil eg líka gjøra þetta vid ydur: Eg vil vitja ydar til ad skélfa ydur med uppdráttar- og kølduspýki hvarvid andlitid verdur følt og sálin vanmegnast; þér skulud forgéfins sá ydar sædi, því óvinir ydar skulu eyda því! 17. Eg vil setja mitt auglit í gégn ydur, þér skulud verda sleignir af ydar óvinum, fjandmenn ydar skulu yfir ydur drottna, og þér skulud flýa þó ad einginn elti ydur. 18. Og ef þér viljid þá enn ekki, þrátt fyrir þetta, hlýda mér, þá skulud þér sjøsinnum þýngri refsíngu sæta, fyrir ydar synda sakir. 19. Eg vil nidurbrjóta ydar stirkleiks dramb, eg vil gjøra himininn yfir ydur sem járn, og ydar jørd sem kopar; 20. ydar kraptar skulu eydast árángurslaust, ydar land skal ekki géfa sinn gróda, og trén í landinu ekki þeirra ávøxt. 21. Og ef þér samt sýnid ydur mér þverbrotna og viljid ekki hlýda mér, þá mun eg auka sjøfaldt ydar refsíngu eptir ydar synda stærd. 22. Eg vil senda villudýr merkurinnar medal ydar, þau skulu gjøra ydur barnlausa, drepa nidur ydar fénad, fækka sjálfum ydur, og ydar vegir skulu verda audir. 23. En ef þér ennþá ekki skipist vid typtanina og breitid þvermódskulega í gégn mér, 24. þá vil eg sannlega gánga á móti ydur, og eg sjálfur vil slá ydur sjøfaldlega fyrir ydar synda skuld, 25. og leida yfir ydur sverd hefndarinnar, sem hefna skal míns sáttmála. Þér munud þá þyrpast inní ydar stadi, en eg vil senda drepsótt á medal ydar, og þér skulud géfast í hendur ydar óvina. 26. Þegar eg brýt ydar brauds staf, þá munu tíu kvinnur baka ydvart braud í einum ofni, og fá ydur aptur braud ydar eptir vigt, og þér munud eta, en ekki verda mettir. 27. Og ef þér þrátt fyrir þetta, þrjótskist vid mig og breitid þvermódskulega í gégn mér, 28. þá vil eg gánga ámóti ydur med reidilegri mótgaungu, og eg sjálfur, vil slá ydur sjøfaldlega vegna ydar synda, 29. svo þér skulud eta hold ydar sona, hold ydar dætra skulud þér eta. 30. Eg vil eydileggja hædir ydar, og afmá ydar sól-guda bilæti, og kasta ydar hræum ofaná skúrgodanna skrokka, og sálu mína mun bjóda vid ydur! 31. Ydar borgir vil eg gjøra ad rústum, og ydar helgu stadi vil eg eydileggja, og ekki lukta til ydar vellùktandi fórna; 32. landid vil eg leggja svo í eydi, ad óvini ydar, sem búa í því, skal hrilla vid því; 33. en ydur vil eg tvístra ámedal heidíngja; eg mun verda med brugdnu sverdi á bak vid ydur, svo ad ydar land leggist í audn, og ydar borgir verdi ad eydimørku. — 34. Þá skal landid gledjast af sínum hvíldartímum;

V. 24. Gánga á móti ydur nl. sem til bardaga. V. 26. Brjóta braudstaf þ. e. svipta atvinnu stofni, eda: svipta fædunna krapti til ad metta og næra. V. 30. Á hædum var venja ad færa fórnir afgudum. Margar þjódir dýrkudu Sólina sem þeir héldu vera Gud.

alla þá tíd, sem þad er í eydi og þér erud í ydar óvina landi, skal landid hvíla og fagna yfir sínum hvíldartímum. 35. Allan þann tíma, sem þad liggur í eydi, skal þad hvíla, því þad fékk ekki hvíld á ydar hvíldartímum, á medan þér bjuggud í því; 36. en hjørtu þeirra, sem eptir verda, vil eg gjøra svo huglaus, í þeirra óvina landi, ad þitur vindi skékins laufblads reki þá á flótta og ad þeir flýi sem fyrir sverdi, og falli þó einginn elti, 37. og hvør falli yfir annann þverann þó einginn elti, og hvørgi skulud þér géta stadist fyrir ydar óvinum; 38. þér skulud fyrirfarast á medal heidinna þjóda, og land óvina ydar skal uppeta ydur; 39. en þeir af ydur sem eptirlifa skulu veslast upp í þeirra misgjørdum í landi ydar fjandmanna, já vegna þeirra fedra misgjørda skulu þeir og uppveslast. 40. Þá munu þeir kannast vid sína misgjørnínga og sínna fedra misgjørnínga, þá þeir høgudu sér svikſamlega vid mig, og breittu þvermódskulega gégn mér, 41. hvørsvegna eg verd ad gánga á móti þeim og reka þá í þeirra fjandmanna land. En ef þeirra óumskornu hjørtu þá audmýkja sig og láta sér þókknast þeirra misgjørda refsíng, 42. þá vil eg minnast míns sáttmála vid Jakob og míns sáttmála vid Isaak, já míns sáttmála vid Abraham vil eg minnast, og landsins vil eg minnast. 43. Landid skal yfirgéfast af þeim og gledja sig af sínum hvíldar tímum, á medan þad liggur í eydi og þeir ekki í því búa og úttaka gjøld sínna misgjørda; einmidt fyrir þad, ad þeir virdtu lítils mín réttindi og þeirra sálu velgdi vid mínum setníngum. 44. En þrátt fyrir þetta hefi eg ekki, jafnvel ámedan þeir enn nú eru í þeirra óvina landi, útskúfad þeim, né burtsnarad þeim til ad gjøra útaf vid þá, og ónýta minn sáttmála vid þá, því eg er Drottinn þeirra Gud: 45. heldur vil eg minnast þeirra, sáttmálans vid fedurnar, sem eg leiddi útaf Egyptalandi fyrir heidíngjanna augsýn, svo ad eg skyldi vera þeirra Gud. Eg er Drottinn.

46. Þetta eru þeir setníngar, réttindi og løgmál, sem Drottinn setti á milli sín og Israels barna á fjallinu Sínaí fyrir hønd Mósis.

## 27. Kapítuli.

Um þad sem Gudi er helgad, og hvornig þad má leysast.

1. En framar taladi Drottinn þannig vid Móses: 2. Tala þú vid Israels børn og seg þú þeim: Ef nokkur heitir Drottni mønnum, skulu þeir af þér metast; 3. þú skalt meta karlmann frá tvítugs aldri til sextugs fyrir fimtýgi sikla eptir helgidóms sikils vigt, 4. en kvennmann fyrir þrjátíu sikla, 5. en karlmann fim ára til tvítugs skaltu meta tuttugu, en kvennmann fyrir tíu sikla; 6. en mánadar gamalt sveinbarn til fim ára fyrir fim sikla, en meybarn fyrir þrjá; 7. en karlmann sextíu ára og þaryfir skaltu meta fyrir fimtán sikla, en kvennmann fyrir tíu sikla. 8. En ef nokkur er of fátækur til ad géta greidt verdid, sem þú hefir matid hann fyrir, þá skal hann koma framfyrir ædsta prestinn, hann skal meta hann, eptir því sem hann hefir rád til ad greida skal hann meta hann.

9. En ef þad er af þeim kvikfénadi, sem menn plaga ad fórnfæra Drottni sem fórnargáfu, þá skal allt þad sem hann géfur Drottni af honum vera heilagt; 10. menn skulu ekki

V. 41. Óumskorid hjarta þ. e. heidínglegt, þverbrotid hjartalag. V. 2. Hjá mørgum fornaldar þjódum var þad tídkanlegt ad heita á Gudi sína, og ad sama hafi smeigt sér inn hjá Gydinganna forfedrum má sjá af 1 Mós. 28, 20, en af 2 Mós. 23, 22. má sjá ad Gudi er eigi um þvílíkar heitgjafir, en vildi þó haldast skyldu, til ad venja á haldinyrdi, nema heitgjøfin sé ógudleg. Mósis leifir hér ad leysa út med peníngum þad heitid er. V. 10. Bodordid um: ad menn meigi ekki skipta um þad sem menn hafa heitid, er géfid til þess, ad venja Gydinga frá øllum prettum og ásælnis brøgdum.

láta það burt fyrir annað, eða skipta um það, hvørki hið betra fyrir það sem verra er, eða hið verra fyrir annað betra; en ef nokkur hefir skipti á einni skèpnu fyrir aðra, þá skal bæði sú sem skipt var um, og sú sem kom í hennar stað vera Drottni helguð. 11. En sérhvørt dýr af óhreinum kvikfénaði, sem menn ekki færa Drottni til fórnargáfu, skal hann leiða fyrir prestinn, 12. og hann skal verðleggja það eptir því sem það er mikils eða lítils verdt, og verðlegging hans skal standa; 13. en ef hann vill leysa það til sín, skal hann gjalda fimta part framyfir það sem þú virðtir það. 14. En ef nokkur helgar hús sitt til þess það sé Drottni helgað, þá skal presturinn virða það, eptir sem það er verdt, mikils eða lítils, og þarvið skal standa, sem hann virðir það. 15. En ef sá sem helgaði hús sitt Drottni vill leysa það til sín aptur, þá skal hann gjalda fimta part framyfir það sem það var virdt fyrir, og þá er húsið hans. 16. En ef nokkur helgar Drottni nokkuð af þeim akri, sem hann á, þá skaltu meta það eptir útsæðinu, fyrir hvørn Komer byggs sem í landið sáist, fimtíu sikla silfurs. 17. Ef hann helgar sinn akur frá fagnaðar árinu, skal það standa við þína virðíngu; 18. en ef hann helgar sinn akur eptir fagnaðar árið, skal presturinn reikna honum verðið eptir áratølunni til fagnaðar ársins og draga þar eptir af verðinu sem þú settir. 19. En vill sá sem helgaði akurinn leysa hann aptur til sín skal hann bæta fimta parti silfurs við það sem þú verðlagðir hann, þá má hann verða hans. 20. En ef hann vill ekki leysa hann aptur til sín, en selur hann øðrum, stendur hann ekki framar til lausnar; 21. heldur skal sá sami akur vera Drottni helgaður þegar fagnaðar árið er útrunnið, líka sem annar alhelgaður akur, og skal vera prestsins eign. 22. En ef nokkur helgar Drottni þann akur, sem hann hefir keypt, en ekki er hans erfða góts, 23. þá skal presturinn reikna honum til góða verð hans allt til fagnaðar ársins, eptir þínu mati, og sama dag skal hann gjalda honum lausnargjaldið eptir þínu mati; og hann er þá Drottni helgaður; 24. en á fagnaðar árinu kémur hann aptur til þess, af hvørjum hann keypti hann, hvørs erfðagóts hann er. 25. Øll þín virðíng skal vera eptir helgidóms siklum; en einn sikill er tuttugu Gerar.

26. En fyrsta burð af kvikfénaði, sem tilheyrir Drottni, af því hann er frumborinn, skal einginn Drottni helga, hvørt heldur það er nautkind eða sauðkind tilheyrir hún Drottni. 27. En ef hann er af óhreinum fénaði skulu menn leysa hann, og bæta fimta parti verðs við; en vilji hann ekki leysa hann, skal hann seljast eptir þinni virðíngu. 28. Þó skal ekkért seljast eða leysast af því sem bannfært er, af øllu því sem hann á, sem nokkur hefir með bannfæríngu helgað Drottni, hvørt það er heldur menn eða fénaður, eða erfða land; allt bannfært er háheilagt fyrir Drottni. 29. Ekkért bannfært, einginn bannfærður maður má leysast, hann skal dauða deya.

30. Øll tíund af landinu, af landsins gróða og ávøxtum trjánna tilheyrir Drottni; það er Drottni helgað. 31. En ef nokkur vill leysa nokkuð af sinni tíund, þá skal hann gjalda fimta part (verðs) framyfir; 32. og øll tíund af stórfénaði og smáfénaði, sem er undir staf hyrðirs=

V. 16. Komer: 5 kvartil. 25. Helgidóms sikill var á Krists døgum hérumbil $\frac{1}{2}$ spesía. Gera minnsta, eiginlega baun. V. 26. Það var eingin heitgjøf, því Drottinn hafði áskilið sér það 2 Mós. 13, 2. 12. 15. 4 Mós. 3. 13. V. 27. Óhreinn þ. e. má eigi etast af mønnum. V. 28. Bannfært (á Hebr: Kerem) kallast það sem ákvarðað er til eyðileggingar Malak. 3, 24. Z:kkar: 14, 11. það mátti ekki útleysast. 5 Mós. 2, 34. 1 Sam. 15, 3. Jós. 6, 18. 10, 28. hvørki menn, fénaður né borgir eða annað.

ins, hvør tíunda sképna skal vera Drottni helg-
ud. 33. Menn skulu ekki (nákvæmlega) ran-
saka hvørt þad er gott eda lakt og ekki hafa
skipti á því, en ef nokkur hefir skipti á því, þá skal
bædi þad sem skipt var og þad sem kom í þess stad,
vera Drottni helgad; þad má ekki aptur leysast.
34. Þetta eru þau bodord, sem Drottinn
gaf Móses fyrir Israels børn á fjallinu Sínaí.

# NUMERI.

# Fjórda Bók Mósis.

## 1. Kapítuli.

*Fólkid talid. Levítar tilskikkadir.*

1. Og Drottinn taladi vid Móses í Sínaí
eydimørk, í samkundutjaldbúdinni, á fyrsta degi
þess annars mánadar, á ødru ári eptir útgaung-
una úr Egyptalandi og mælti: 2. tak þú mann-
tal gjørvalls safnadar Israelssona eptir þeirra
kynkvíslum, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu
nafnanna, allra af karlkyni eptir þeirra høfda-
tølu; 3. frá tvítugs aldri og þar yfir; alla
sem strídfærir eru í Israel skulud þér telja, þú
og Aron eptir þeirra herflokkum. 4. Madur sé
med ykkur einn fyrir hvørja ættkvísl, sá sem er
høfdíngi sinnar ættar. 5. Og þessi eru nøfn
þeirra manna sem eiga ad styrkja ykkur: fyr-
ir Rúben: Elisur, sonur Sedurs; 6. fyrir Si-
meon: Selumjel, sonur Surisadai; 7. fyrir
Júda: Nahesson, sonur Amminadabs; 8. fyrir
Isaskar: Netaneel, sonur Suars; 9. fyrir Sa-
búlon: Eliab, sonur Helons; 10. fyrir syni
Jóseps, fýrir Efraim: Elisama, sonur Ammi-
húds; fyrir Manasse: Gamliel, sonur Peda-
súrs; 11. fyrir Benjamín: Abidan, sonur Gi-
deons; 12. fyrir Dan: Ahieser, sonur Ammi-
sadais; 13. fyrir Asser: Pagiel, sonur Ok-
rans; 14. fyrir Gad: Eliasaf, sonur Deguels;
15. fyrir Naftali: Ahira, sonur Enans. 16.
Þessir voru þeir af søfnudinum vøldu, høfuds-
menn þeirra fødurlegu ætta; þeir voru høfd-
íngjar Israelsmanna flokka. 17. Og Móses
og Aron tóku þessa menn, sem nefndir eru
nøfnum, 18. og þeir samansøfnudu øllu fólkinu
á fyrsta degi í þeim ødrum mánudi. Og þeir
létu skrifa sig í ættartølu bækurnar, eptir
þeirra kyni og ættfedrum, eptir nafna talinu,
tvítugir og eldri, hvør fyrir sig, 19. eins og
Drottinn hafdi bodid Móses; og svo taldi hann
þá í Sinaí eydimørku.

20. Synir Rúbens, Israels frumgétna son-
ar, allir kallmenn, strídsfærir, tvítugir og eld-
ri, sem uppskrifadir voru eptir þeirra kyni, ætt-
fedrum, og tølu þeirra nafna og þeirra høfda,
21. þeir af Rúbens ættkvísl, tøldu (kønnudu)
voru 46,500. 22. Synir Simeons, allir vopn-
færir kallmenn, tvítugir og eldri sem uppskrifad-
ir voru, eptir þeirra kyni og ættfedrum, eptir
þeirra nafna og høfda tølu kannadir, 23. þeir
tøldu af Simeons ættkvísl 59,300. 24. Syn-
ir Gads, allir vopnfærir, tvítugir og eldri, upp-
skrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedr-
um og eptir nafnatølu, 25. þeir kønnudu af
Gads ættkvísl voru 45,650. 26. Júda syn-
ir tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrif-

ædir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 27. þeir kønnudu af Júda ættkvísl voru 74,600. 28. Ísaskars synir, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 29. þeir konnudu af Ísaskars ættkvísl voru 54,400. 30. Sebúlons synir, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 31. þeir kønnudu af Sebúlons ætt voru 57,400. 32. Synir Jóseps, af sonum Efraims, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir, eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 33. þeir kønnudu af Efraims ættkvísl voru 40,500. 34. Af sonum Manasses, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 35. þeir kønnudu af Manasses ættkvísl voru 32,200. 36. Synir Benjamíns tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 37. þeir kønnudu af Benjamíns ættkvísl voru 35,400. 38. Dans synir, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 39. þeir kønnudu af Dans ættkvísl voru 62,700. 40. Assers synir, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 41. þeir kønnudu af Assers ættkvísl voru 41,500. 42. Synir Naftalis, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, uppskrifadir eptir þeirra kyni, eptir þeirra ættfedrum, eptir tølu nafnanna, 43. þeir kønnudu af Naftalis ættkvísl voru 53,400.

44. Þessir eru þeir kønnudu, sem Móses og Aron og Ísraels høfudsmenn, þeir (til kosnu) 12 menn, tøldu; einn madur var fyrir hvørja ættkvísl. 45. Og allir Ísraels synir, sem taldir voru, tvítugir og eldri, allir vopnfærir, eptir þeirra ættfedrum, 46. reiknudust 603,550. 47. En Levítarnir, eptir þeirra fedra ætt, voru ekki taldir med þessum.

48. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 49. Leví ættkvísl skaltu ekki kanna, og hennar fólkstal skaltu ei taka inn á medal Ísraels sona; 50. heldur skaltu setja Levítana vid løgmálstjaldbúdina, (ad gjæta) allra hennar áhalda, og alls sem því vidvíkur, þeir skulu bera tjaldbúdina og øll hennar áhøld og henni þjóna; og hafa sín tjøld allt í kríngum. 51. Og þegar tjaldbúdin tekur sig upp, skulu Levítarnir taka hana nidur, og þegar tjaldbúdin tekur sér stad, skulu Levítarnir reisa hana; en sá framandi, sem nálægir sig, skal deydast. 52. Og Ísraels synir skulu tjalda hvør á sínum stad í herbúdunum, hjá merki sinnar sveitar. 53. En Levítarnir skulu tjalda (legra sig) allt í kríng um løgmáls tjaldbúdina, ad ekki komi reidi yfir søfnud Ísraels sona; og Levítarnir skulu annast løgmáls tjaldbúdina. 54. Og Ísraels synir gjørdu þad; algjørlega eins og Drottinn baud Móses, svo gjørdu þeir.

## 2. Kapituli.

Nidurskipun herbúdanna.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og Aron og sagdi: 2. hvør og einn af Ísraels sonum skal tjalda hjá sínu merki, hjá einkénni sinnar ættar; allt í kríngum samkundutjaldid út frá því. 3. Ad austanverdu vid þad, mót uppgaungu (sólar) tjaldi þessir: þar sé Júda merki med sínni sveit og høfudsmadur Júda sona, Nahesson, sonur Amminadabs, 4. og hans her og hans tøldu (strídsmenn) 74,600. 5. Hjá honum tjaldi: Ísaskars ættkvísl, og høfudsmadur Ísaskars sona Netaneel, sonur Súars, 6. og hans her og hans tøldu (strídsmenn) 54,400. 7. Sebúlons ættkvísl og høfudsmadur Sebúlons sona, Eliab, sonur Helons, 8.

og hans her, og hans tøldu stríðsmenn 57,400. 9. Allir þeir tøldu í Júda herbúdum 186,400 eptir þeirra her; þeir skulu fyrstir taka sig upp. 10. Merki Rúbens herbúda skal vera mót sudri med sínum her, og høfudsmadurinn Rúbens sona, Elísur sonur Sedeurs, 11. og hans her og hans tøldu stríðsmenn, 46,500. 12. Og hjá honum skal tjalda Símeons ættkvísl og høfudsmadur Símeons sona, Selumjel, sonur Surisadais, 13. og hans her og hans tøldu stríðsmenn 59,300. 14. Og Gads ættkvísl, og høfudsmadur Gads sona, Eliasaf, sonur Reguéls, 15. og hans her, og hans tøldu stríðsmenn 45,650. 16. Allir þeir tøldu í Rúbens herbúdum eru 151,450, eptir þeirra her; og þeir skulu taka sig upp næst þeim fyrstu. 17. Og svo taki sig upp samkundu tjaldid, Levítanna tjaldbúdir midt í herbúdunum; eins og þeir taka sér tjaldstadi, svo skulu þeir taka sig upp, hvør á sínum stad, eptir þeirra merkjum.

18. Merki Efraims herbúda med sínum her sé ad vestanverdu, og høfudsmadur Efraims sona, Elísama, sonur Ammíhuds, 19. og hans her og hans tøldu stríðsmenn, 40,500. 20. Og næst vid hann Manassis ættkvísl, og høfudsmadur Manassis sona Gamlíel, sonur Pedasurs, 21. og hans her og hans tøldu stríðsmenn, 32,200. 22. Og Benjamíns ættkvísl og høfudsmadur Benjamíns sona Abidan, sonur Gideonis, 23. og hans her og hans tøldu stríðsmenn 35,400. 24. Allir þeir tøldu í herbúdum Efraims 108,100 eptir þeirra her; þeir skulu vera hinir þridju ad taka sig upp. 25. Merki Dans herbúda sé ad nordanverdu med sínum her og høfudsmadur Dans sona, Ahieser sonur Ammisadais, 26. og hans her og hans tøldu stríðsmenn 62,700. 27. Næst honum tjaldi Assers ættkvísl og høfudsmadur Assers sona Pagíel, sonur Okrans, 28. og hans her og hans tøldu stríðsmenn 41,500. 29. Og Naftalí ættkvísl, og høfudsmadur Naftalis sona, Ahíra, sonur Enans, 30. og hans her, og hans tøldu stríðsmenn 53,400. 31. Allir þeir tøldu í Dans herbúdum eru 157,600; seinastir skulu þeir taka sig upp eptir þeirra merkjum.

32. Þessir eru þeir tøldu stríðsmenn Ísraelssona eptir þeirra ættfedrum; allir þeir tøldu í herbúdunum eptir þeirra her voru 653,050. 33. En Levítarnir voru ekki taldir med Ísraels sonum, því svo hafdi Drottinn bodid Móses. 34. Og Ísraels synir gjørdu svo; rétt eins og Drottinn baud Móses, svo settu þeir herbúdir sínar eptir þeirra merkjum og eins tóku þeir sig upp, hvør eptir sinni ætt, í sinni kynkvísl.

## 3. Kapítuli.

*Tala Levítanna og þeirra embætti, lausn frumburdanna.*

1. Þetta er kynþáttur Arons og Mósis, um þad leiti sem Drottinn taladi vid Móses á Sínaí fjalli. 2. Þetta eru nøfn Arons sona: sá frumgétni Nadab, og Abíhu, Eleasar og Ítamar. 3. Þetta eru nøfn Arons sona, hinna smurdu presta, sem innsettir voru í prestdæmid. 4. En þeir dóu Nadab og Abíhu frammi fyrir Drottni, í Sínaí eydimørku, þá þeir báru fyrir Drottinn annarlegan (óvígdan) eld, og þeir áttu einga syni, og svo urdu þeir Eleasar og Ítamar prestar, undir umsjón fødur þeirra, Arons.

5. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 6. kom þú híngad med Leví ættkvísl, og leid þú hana fyrir prestinn Aron, ad þeir þjóni honum. 7. Og þeir skulu annast þad sem er ad annast, fyrir hann, og fyrir allan søfnud samkundu tjaldsins, ad þeir gégni þjónustunni í tjaldbúdinni. 8. Þeir skulu annast øll áhøld samkundu tjaldsins, og þad sem er ad annast

fyrir Ísraels syni, ad þér gégni þjónustu tjaldbúdarinnar. 9. Þú skalt géfa Aroni og sonum hans Levítana, þeir eru honum géfnir úr hóp Ísraels sona, til allrar eignar. 10. Og Aron og hans syni skaltu setja til þess, ad þeir annist þeirra prestdæmi; en sá framandi sem kémur þar nærri hann skal deydast.

11. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 12. sjá! eg hefi af Ísraelssonum tekid handa mér Levítana, í stadin fyrir alla frumburdi af Ísraelssonum, sem opna módurlífid; og mér skulu Levítarnir tilheyra. 13. Því eg á allt frumborid; frá þeim tíma, ad eg vann á øllu frumbornu í Egyptalandi, hefi eg helgad mér frumborid í Ísrael, af mønnum og fénadi; mér skal þad tilheyra, mér Drottni.

14. Og Drottinn taladi vid Móses í Sínaí eydimørku og mælti: 15. tel þú Leví syni, eptir þeirra ættfedrum og kynþáttum; alla kallkyns, mánadargamla og þar yfir skaltu telja þá. 16. Og Móses taldi þá eptir bodi Drottins, eins og honum var skipad. 17. Og þessir voru Leví synir eptir þeirra nøfnum: Gerson og Kahat og Merarí. 18. Og þetta eru nøfn sona Gersons eptir þeirra kynþáttum: Libní og Simei. 19. Og synir Kahats eptir þeirra kynþáttum: Amram og Jesehar, Hebron og Usíel. 20. Og synir Merarí eptir þeirra kynþáttum: Maheli og Músí, þetta eru kynþættir Leví eptir þeirra ættfedrum.

21. Af Gerson er ætt Libníta og ætt Simeíta, þad eru kynþættir Gersonítanna. 22. Þeir sem taldir voru, allir kallkyns mánadargamlir og eldri, þeir tøldu af þeim voru 7500. 23. Kynþættir Gersonítanna tjøldudu ad baki tjaldbúdarinnar, vestan til. 24. Og høfudsmadur Gersons ættleggs var Eliasaf, sonur Laels. 25. Þad var sýslan Gersons sona vid samkundutjaldid (ad annast) búdina og tjaldid, þakid og dúkinn fyrir dyrum samkundu tjaldsins, 26. og forgardsins dúka, og forgardsdyra dúkinn, hvør (forgardur) var allt í kríngum búdina og altarid, og dúka støgin og annad tilheyrandi.

27. Og af Kahat er ætt Amramíta og ætt Jeseharíta, og ætt Hebroníta og ætt Usíelíta. Þessir eru kynþættir Kahatíta. 28. Eptir tølu allra kallkyns, mánadargamalla og eldri 8600, þeir ønnudust helgidóminn. 29. Ættleggir Kahatssona, tjøldudu fyrir sunnan búdina. 30. Og høfudsmadur ættleggsins Kahatíta kynþátta, var Elisafan, sonur Usíels. 31. Þeir skyldu annast ørkina og bordid og hjálminn og altarid og þau helgu áhøld er þeir brúka vid þjónustugjørdina, og fortjaldid, og allt sem þar til heyrir. 32. En yfirmadur Levítanna høfudsmanna var Eleasar sonur Arons prests, hann hafdi umsjón yfir þeim sem ønnudust umsorgun helgidómsins.

33. Af Merarí er ætt Mahelíta og ætt Músíta, þetta eru kynþættir Meraríta. 34. Og þeir tøldu af þeim, eptir tølu, allir kallkyns, mánadargamlir og eldri, voru 6200. 35. Og høfudsmadur ættarinnar, Meraríta kynþátta, var Suríel sonur Abíhails. Og þeir tjøldudu nordanmegin vid búdina. 36. Og umsjón og umhirding Meraris sona voru: fjalir búdarinnar, stángir og stólpar og øll þau tól, og allt sem þar til heyrdi. 37. Og stólpar forgardsins allt um kríng, og þeirra pallar, hælarnir og støgin. 38. Og fyrir framan búdina, fyrir framan samkundu tjaldid ad austanverdu, tjøldudu Móses og Aron og hans synir, sem ønnudust helgidóminn fyrir Ísraels syni; en sá framandi, sem kom þar nærri, skyldi deydast.

39. Allir þeir tøldu Levítar, sem Móses og Aron høfdu talid eptir bodi Drottins, eptir þeirra kynþáttum, allir kallkyns, mánadargamlir og eldri, voru 22,000.

40. Og Drottinn ſagdi vid Móſes: tel þú alla kallkyns frumburdi, medal Israels ſona, mánadar gamla og eldri, og tak þú tølu þeirra nafna. 41. Og tak þú mér Levítana, mér Drottni, í ſtad frumburdanna medal Israels ſona, og fénad Levítanna, í ſtadin fyrir allan frumburd Israels ſona fénadar. 42. Og Móſes taldi, eins og Drottinn baud honum frumburdina medal Israels ſona. 43. Og þar voru, allir kallkyns frumburdir, eptir tølu nafnanna, mánadargamlir og eldri, allir taldir 22,273.

44. Og Drottinn taladi vid Móſes, og mælti: 45. tak þú Levítana í ſtadin fyrir alla frumburdina medal Israels ſona, og fénad Levítanna, í ſtad þeirra fénadar, ad Levítarnir tilheyri mér, mér Drottni. 46. En til innlauſnar þeirra 273ja, ſem eru fleiri, en Levítarnir, af frumburdum Israels ſona, 47. ſkaltu taka 5 ſikla fyrir hvørt høfud; eptir helgidóms ſikli ſkaltu taka, 20 Gera fyrir ſikil. 48. Og fá þú peníngana Aroni og hans ſonum, lauſnargjald fyrir þá ſem umfram voru. 49. Svo tók Móſes lauſnargjaldid af þeim ſem umfram voru, innlauſn Levítanna; 50. Af frumburdum Israels ſona tók hann peníngana 1365 ſikla, eptir helgidóms ſikli. 51. Og Móſes afhendti lauſnargjaldid Aroni og ſonum hans eptir bodi Drottins; eins og Drottinn baud Móſes.

## 4. Kapítuli.

*Tala og embætti Levítanna.*

1. Og Drottinn taladi vid Móſes og Aron og mælti: 2. takid tølu Kahatsſona medal Leví ſona, eptir þeirra kynþáttum og ættfedrum, 3. frá þrítugs aldri og þar yfir allt til fimtugs, alla ſem í ſtríd géta geingid *), til þeſs ad ſtarfa vid ſamkundutjaldid. 4. Þjónuſta Kahats ſona vid ſamkundutjaldid er: þad allra helgaſta. 5. Og þegar herinn tekur ſig upp, ſkulu þeir Aron og ſynir hans gánga inn og taka nidur fortjaldid og vefja því utanum løgmáls ørkina, 6. og ſkulu láta þar utanum ſelſkinn, og breida dúk úr bláum purpura yfir, og feſta þar vid ſtángirnar. 7. Og yfir ſkodunarbrauda bordid ſkulu þeir breida dúk úr bláum purpura, þar á ſkulu þeir leggja føtin, bollana og ſkálarnar, og þakkarfórna kønnuna, og þad ævarandi braud ſkal vera á því. 8. Þar yfir ſkulu þeir breida raudan dúk, og þekja med ſelſkinni, og feſta þar vid ſtángirnar. 9. Og þeir ſkulu taka dúk af bláum purpura og vefja innaní hann hjálminn, og hans lampa og hans ſkarbíti, og ſkarpønnur og øll vidſmjørs kérin med hvørjum menn gégna þjónuſtunni, honum vidvíkjandi, 10. og ſkulu ſveipa hann og øll hans áhøld med ſelſkinni, og leggja á ſtángirnar. 11. Og yfir þad gullbúna altari ſkulu þeir breida bláan (purpura) dúk og þekja þad med ſelſkinns feldi, og feſta þar vid ſtángirnar. 12. Og øll tól þjónuſtugjørdarinnar, med hvørjum menn vinna ad þjónuſtugjørdinni í helgidóminum, ſkulu þeir taka, og þeir ſkulu leggja þau innaní dúk af bláum purpura og þekja med ſelſkinns feldi, og leggja á ſtángirnar, 13. og þeir ſkulu líka ſópa øſkunni af altarinu, og breida yfir þad purpura dúk, 14: og leggja á þad øll þeſs áhøld med hvørjum þjónuſtugjørdinni á því er gégnt, glódarkérin, ſodkrókana, auſurnar og bollana, øll áhøld altariſins, og ſkulu þeir leggja yfir þad ſelſkinns feld og feſta þar vid ſtángirnar; 15. Og þegar Aron og ſynir hans eru búnir ad búa um helgidóminn og øll helgidómſins áhøld, þá herbúdirnar ſkulu flytjaſt, ſkulu Kahats ſynir koma, til ad bera þetta; en þeir meiga

*) Máſké réttara: alla ſem geingu í rødina, eda géta ſkiſtſt um, til þjónuſtugjørdar vid ſamkundutjaldid ſbr. V. 23. 30. 35. 39. 43.

ei snerta helgidóminn og deya, (ad ei deyi þeir) þad hafa Kahatssynir ad bera af samkundu tjaldbúdinni. 16. Og Eleasar, sonur Arons prests, hefir umsjón yfir olíunni til ljósahjálmsins og ilm reykelsinu, því jafnadarlega matoffri og smurníngar vidsmjørinu, og umsjón yfir allri búdinni og øllu sem í henni er, helgidóminum og hans áhøldum.

17. Og Drottinn taladi vid Móses og Aron og mælti: 18. Látid ekki kynþátt Kahatítanna fyrirfarast úr Levíta ættum, 19. heldur farid svona med þá, ad þeir lifi og deyi ekki, ef þeir koma nærri því allra helgasta; Aron og hans synir skulu gánga inn, og skipa sérhvørjum sína þjónustu og sinn burd; 20. en þeir skulu ekki sjálfir gánga inn og ekki eitt augnablik sjá helgidóminn, og deya, (ad ei deyi þeir). 21. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 22. tel þú líka Gersons syni eptir þeirra ættfedrum og kynþáttum, 23. frá þrítugs aldri og þar yfir, allt til fimtugs skaltu þá telja, (alla sem færir eru til strídsþénustu) ad þeir gégni (þjónustugjørdinni) vid samkundu tjaldbúdina. 24. Þessi er þjónusta Gersoníta kynþáttsins, ad giøra og bera: 25. þeir skulu bera dúka búdarinnar, og samkundu tjaldid, og hennar þak, og selskinna þakid sem er utan yfir hinu, og dúkinn sem er fyrir dyrum samkundu tjaldsins, 26. og lángtjøld forgardsins, og dúkinn fyrir inngángi forgardsins, sem er allt í kríngum búdina og altarid, og þeirra støg, og øll þau áhøld sem hér til heyra, og þeir skulu gégna øllu því sem þar ad lútandi er ad gjøra. 27. Eptir bodi Arons og hans sona skal øll þjónusta Gersons sona framfara, allt sem þeir eiga ad bera, og allt sem þeir eiga ad gjøra, og þér skulud fela þeim til umønnunar þad sem þeir eiga ad bera. 28. Þetta er þjónusta kynþátta Gersons sona, vidvíkjandi samkundu tjaldinu, og þeirra sýslan sé undir umsjón Itamars, sonar Arons prests.

29. Sonu Meraris, eptir þeirra kynþáttum og ættfedrum skaltu líka telja: 30. frá þrítugs aldri og þar yfir allt til fimtugs skaltu þá telja, þá sem gánga ad þjónustunni til ad starfa vid samkundu tjaldid. 31. Og þetta hafa þeir ad annast og bera, sem er øll þeirra þjónusta vid samkundu tjaldid: fjalir búdarinnar og þeirra nagla og þeirra stodir og þeirra palla, 32. og stólpa forgardsins allt um kríng, og þeirra palla og þeirra hæla og þeirra støg, øll þeirra áhøld, og allt þeim tilheyrandi; og med tølu (nafni) skulud þér afhenda þeim þau áhøld sem þeir eiga ad annast og bera. 33. Þetta er þjónusta Meraris sona kynþátta, øll þeirra þjónusta vid samkundu tjaldid, undir umsjón Ithamars, sonar Arons prests.

34. Og svo kønnudu þeir Móses og Aron og høfudsmenn safnadarins syni Kahatítanna eptir þeirra kynþáttum og ættfedrum, 35. þrítuga og þar yfir allt til fimtugs, alla sem geingu í rødina til þjónustu vid samkundu tjaldid. 36. Og þeir kønnudu voru eptir þeirra kynþáttum 2750. 37. Þad voru þeir tøldu af kynþáttum Kahatítanna, allir sem þá þjónudu vid samkundu tjaldid, sem þeir Móses og Aron tøldu, eptir skipun Drottins fyrir (milligaungu) Móses. 38. Og þeir kønnudu af sonum Gersons eptir þeirra kynþáttum og eptir þeirra ættfedrum, 39. frá þrítugs aldri og þar yfir, allt til fimtugs, allir sem geingu í rødina til þjónustu vid samkundu tjaldid, 40. þeir kønnudu af þeim eptir þeirra kynþáttum og ættfedrum, voru 2630. 41. Þad voru þeir kønnudu af kynþáttum Gersons sona, sem þá þjónudu vid samkundu tjaldid, sem Móses og Aron tøldu eptir Drottins bodi. 42. Og þeir kønnudu af Meraris sonum eptir þeirra kynþáttum og eptir þeirra ættfedrum, 43. frá

þrítugs aldri og þar yfir, allt til fimtugs, allir sem geingu í rødina, til ad þjóna vid samkundu tjaldid, 44. þeir tøldu af þeim voru, eptir þeirra kynþáttum og ættfedrum 3200. 45. Þad voru þeir kønnudu af kynþáttum Meraris sem Móses og Aron tøldu eptir bodi Drottins fyrir (milligaungu) Mósis. 46. Allir þeir kønnudu, sem Móses og Aron og høfudsmenn Ísraelsmanna tøldu, Levítarnir eptir þeirra kynþáttum og ættfedrum, 47. frá þrítugs aldri og þar yfir allt til fimtugs, allir sem þá geingu ad því ad þjóna vid samkundu tjaldid, og bera, 48. þeir voru 8580. 49. Eptir bodi Drottins fyrir milligaungu Mósis voru þeir taldir, hvør einn til sinna starfa og síns burdar, og þeir voru taldir, sem Drottinn baud Móses (ad telja).

## 5. Kapítuli.

Óhreinlæti í herbúdunum. Um konu sem hleypur frá manni.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 2. skipa þú Ísraels sonum ad þeir láti burt úr herbúdunum alla holdsveika og þá sem hafa sáðlát, og þá sem hafa saurgad sig á líki; 3. eins karl sem konu skulud þér burt reka, úr herbúdunum skulud þér þá láta, svo þeir ei saurgi ydar herbúdir, í hvørjum eg bý medal ydar. 4. Og Ísraelsmenn gjørdu svo, og létu þá burt úr herbúdunum; eins og Drottinn hafdi talad vid Móses, svo gjørdu Ísraels synir.

5. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 6. tala þú vid Ísraelssyni: þegar madur eda kona drýgir einhvørja synd, sem mønnum er tídt, og brjóta á móti Drottni, og sú hin sama sál hefir gjørt sig seka; 7. svo skulu þeir játa þá synd, sem þeir hafa drýgt og bæta skulu þeir sína sekt, sjálfa summuna, og fimta parti skulu þeir bæta vid, og þetta skulu þeir gjalda þeim er þeir gjørdu sig seka vid. 8. Og hafi madurinn *) eingan náinn ættíngja til ad greida honum bæturnar, svo tilheyra bæturnar Drottni þ. e. prestinum, auk forlíkunar hrútsins, med hvørjum menn forlíka þá seku. 9. Og allt upplyptíngaroffur af øllu því sem Ísraelssynir helga, ad þeir færi þad prestinum, skal honum tilheyra. 10. Og hvad eina helgad, þad skal vera hans; gefi einhvør eitthvad prestinum, þá skal hann hafa þad.

11. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti 12. tala þú vid Ísraelssyni og seg þeim: þegar kona einhvørs manns fellur til lauslætis og verdur honum ótrú; 13. og annar madur leggst med henni, en madurinn veit ei af, og þad er skéd leynilega ad hún er saurgud, og þar eru eingin vitni móti henni, og hún er ekki ad verkinu stadin. 14. Og yfir hann kémur vandlætíngar andi, svo ad hann vandar um vid konu sína, og hún er saurgud; eda þar kémur yfir hann vandlætíngar andi ad hann vandlætir um vid konu sína, og hún er ekki saurgud: 15. svo fari madurinn med konu sína til prestsins, og færi honum sína fórnargáfu hennar vegna, tíunda part af Efa byggmjøls; eingu vidsmjøri skal hann þar yfir hella, og eingu reykelsi þar á strá; því þad er vandlætíngar matoffur, endurminníngar matoffur sem minnir á yfirtrodslu. 16. Og presturinn leidi hana fram fyrir Drottinn. 17. Og taki vígt vatn í leirkér; og mosk af gólfi búdarinnar taki hann og láti í vatnid. 18. Og presturinn leidi konuna fram fyrir Drottinn, og taki af henni høfudfatid, og leggi í hennar hønd matoffrid endurminníngarinnar, matoffur vandlætíngarinnar; og í prestsins hendi sé beiska vatnid sem ollir bølvunar, 19. og presturinn gángi hart á konuna og segi vid hana: hafi eingin madur hjá þér legid, og hafir þú ekki

*) Sá madur sem brotid var á móti og er dáinn.

leift þér óleyfilega lausúng á bak vid þinn mann,
svo verdi þetta beiska vatn, sem bølvunar oll-
ir, þér ósaknæmt; 20. en hafir þú drýgt los-
ædi á bak vid þinn mann, og sértu saurgud,
og hafi einhvør annar enn madurinn þinn
med þér lagst, 21. svo þrísti presturinn ad kon-
unni med bølvunar særinu, og segi vid konuna:
svo gjøri Drottinn þig ad bølvun (vidund-
ri) medal þíns fólks, svo ad Drottinn láti þín-
ar lendar hjadna og þinn kvid þrútna. 22.
Og þetta vatn sem hefir medferdis bølvan,
færi hana í þín innisli, svo þinn kvidur þrútni
og þínar lendar hjadni; og konan segi: þad
veri svo! þad veri svo! 23. Þá skrifi prest-
urinn þessa formælíngu í bókina, og þvoi hana
af med beiska vatninu, 24. og gefi konunni
beiska vatnid, sem bølvan hefir medferdis, ad
drekka, svo þad bølvun med sér hafandi vatn,
þreyngi sér í hana og verdi ad beiskju. 25.
Og presturinn taki vid vandlætíngarinnar mat-
offri úr hendi konunnar, frammi fyrir Drottni,
og beri þad á altarid. 26. Og presturinn
taki handfylli af matoffrinu, svo sem fórnar-
part, og upptendri á altarinu, og eptir þad
skal hann fá konunni vatnid ad drekka. 27.
Og hafi hann feingid konunni vatnid ad drekka,
og sé hún saurgud, og hafi hún verid mann-
inum ótrú, svo mun þad vatn, sem bølvun
hefur medferdis, þreyngja sér inn í hana til
beiskju, og mun hennar kvidur þrútna, og henn-
ar lendar hjadna, og konan mun verda ad
bølvun medal síns fólks. 28. En sé konan ekki
saurgud og sé hún hrein, svo mun hún verda
óstrøffud, og eignast afkvæmi. 29. Þetta eru
løgin um vandlætíng. Þegar kona drýgir
lausúng bak vid mann sinn og verdur saurg-
ud, 30. eda þegar vandlætíngar andi kémur
yfir manninn, svo hann vandlætir um vid sína
konu: svo fari hann med konuna fram fyrir
Drottinn, og presturinn fari med hana eptir
þessu løgmáli. 31. Og madurinn sé frí vid
sekt, og sama kona beri sína sekt.

## 6. Kapítuli.

Um Nasarea. Arons blessan.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti:
2. tala þú vid Israels sonu og seg þeim: þeg-
ar madur nokkur eda kona gjøra Drottni helg-
unar heit, ad helga sig; 3. svo skal hann var-
ast ad drekka vín og sterkan drikk; hann skal
hvørki drekka súr af víni né súr af sterkum
drikk, og einga vínberja saft má hann drekka,
og vínber fersk og þurr skal hann ekki eta.
4. Allan tíma sinnar helgunar má hann ekk-
ért eta af øllu því, sem gjørt er af vínvidi,
allt frá kjarnanum til hýdisins. 5. Allan
tíma síns helgunar heitis skal eingin rakhníf-
ur koma á hans høfud; þángad til þeir dag-
ar eru allir, sem hann hefir Drottni heitid,
skal hann vera helgur; høfud hár sitt láti hann
vaxa med frelsi. 6. Allan þann tíma er hann
hefir helgad Drottni, skal hann ekki koma ad
líki dauds manns. 7. Vegna fødur síns,
vegna módur sinnar, vegna bródur síns og
vegna systur sinnar, þeirra vegna skal hann
ekki saurga sig, þó þau deyi, því helgun hans
Guds er á hans høfdi. 8. Allan tíma sinnar
helgunar er hann Drottni helgadur. 9. Og
skyldi einhvør madur verda brádkvaddur hjá
honum snøgglega, svo ad hans helgada hár
saurgast, svo skéri hann hár sitt á sínum
hreinsunardegi; á sjøunda degi skal hann þad
skéra. 10. Og á 8da degi skal hann færa
prestinum tvær turtildúfur, eda tvo dúfu únga,
til dyra samkundu tjaldsins. 11. Og prestur-
inn skal offra annari sem syndafórn og annari
sem brennifórn, og fridþægja fyrir hann, vegna
þess hann hefir syndgast á líki; og svo helgi
hann høfud sitt á þeim sama degi. 12. Og
helgi Drottni (en framar) tíma sinnar helgun-

ar og komi med ársgamalt lamb til sektafórnar. Sá fyrri tími er tapadur, því hans helgun er saurgud. 13. Þetta er løgmálid um þann helgada. Þegar dagar hans helgunar eru lidnir, skulu menn leida hann ad dyrum samkundu tjaldsins; 14. og hann færi Drottni sína fórnargáfu ársgamalt lamb, lýtalaust, til brennifórnar, ársgamla gimbur til syndafórnar og hrút lýtalausann til þakkarfórnar, 15. og kørfu med ósýrdar køkur úr hveitimjøli, sem vidsmjøri sé hellt yfir, og ósýrd flatbraud, smurd med vidsmjøri, og þaradauki matoffur og drikkjaroffur. 16. Og presturinn beri þad fram fyrir Drottinn, og starfi ad syndafórninni og brennifórninni. 17. Og hrútinn skal hann fórnfæra Drottni sem þakkarfórn med kørfunni af því ósýrda, og hann skal frambera matoffrid og drikkjaroffrid. 18. Og sá helgadi skéri sitt helgada hár, fyrir dyrum samkundu tjaldsins, og taki sitt helgada høfud hár, og leggi þad á eldinn, sem logar undir þakkarfórninni. 19. Og presturinn taki þann sodna bóg af hrútnum og eina ósýrda køku úr kørfunni og eitt ósýrt flatbraud, og leggi þad hid sama í hønd þess helgada eptir ad hann hefir skorid sitt hid helgada (hár). 20. Og presturinn veifi hinu sama sem veifun fyrir Drottni; þad er prestinum heilagt (hann á þad) auk veifunar bríngunnar og auk veifunar lærsins; og eptir þad má sá helgadi drekka vín. 21. Þetta eru løgin um þann helgada, sem hefir heitid Drottni fórnargáfu vegna sinnar helgunar, auk þeirrar hvar til hans eigur hrøkkva; eptir sínu heiti, sem hann hefir gjørt, þar eptir verdur hann ad gjøra, fram yfir helgunar løgmálid.

22. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 23. tala þú vid Aron og hans syni og seg: svona skulud þér blessa Israelssyni: segid til þeirra: 24. Drottinn blessi þig og vardveiti þig; 25. Drottinn láti sitt auglit lýsa þér, og sé þér nádugur! 26. Drottinn lyfti sínu augliti til þín og gefi þér frid! 27. og (svona) skulu þeir leggja mitt nafn yfir Israelssyni, og eg vil blessa þá.

## 7. Kapituli.

Vígslugjafir þeirra 12 Høfudsmanna.

1. Þá Móses reisti búdina og smurdi hana og vígdi og øll hennar áhøld, og altarid og øll þess áhøld, þá hann smurdi þetta og vígdi: 2. þá komu Israels høfudsmenn, høfdíngjar sinna ætta, yfirmenn ættkvíslanna, þeir sem þá voru fyrir þeim tøldu, 3. þeir komu med gjafir fram fyrir Drottinn 6 vagna og 12 naut, einn vagn fyrir hvørja tvo høfudsmenn, og naut fyrir hvørn þeirra; þeir komu med þetta fram fyrir búdina. 4. Og Drottinn sagdi vid Móses: 5. tak þú vid þessu af þeim, og þad sé til þénustu vid samkundu tjaldid, og fá þú þetta Levítunum eptir tiltølu þeirra þjónustu. 6. Þá tók Móses vagnana og nautin og afhendti Levítunum. 7. Gersonssonum fékk hann tvo vagna og 4 naut eptir tiltølu þeirra þjónustu. 8. Og 4 vagna og 8 naut fékk hann Merarissonum eptir tiltølu þeirra þjónustu, undir umsjón Itamars, sonar Arons prests. 9. En Kahatssonum fékk hann ekkért, því á þeim hvíldi þjónusta helgidómsins, á sínum herdum báru þeir hann.

10. Og høfudsmennirnir komu med altaris vígslu gáfur þann dag sem þad var smurt; og høfudsmennirnir báru sínar gáfur fyrir altarid.

11. Og Drottinn sagdi vid Móses: sinn daginn framberi hvør af høfudsmønnunum sínar gáfur til altarisins vígslu. 12. Og þad vildi svo til, ad sá sem á fyrsta deginum frambar sína gáfu, var Nahesson af Júda ættkvísl. 13. Og hans gáfa var silfurfat, 130 siklar ad þýngd, silfur skál 70 siklar, eptir helgidóms sikli, hvørtveggja fullt med hveitimjøl, vidsmjøri

var hellt yfir, til matoffurs; 14. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi. 15. Ungur boli, hrútur og ársgamalt lamb til brennifórnar; 16. einn geithafur til syndafórnar; 17. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar og 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Nahessons Ammínadabs sonar.

18. Á øðrum degi offraði Netaneel sonur Súars, høfuðsmaður Issaskars ættkvíslar, 19. hann kom með sína gáfu: silfur fat, það vóg 130 sikla silfurs, silfur skál, 70 sikla, eptir helgidóms sikli, hvørtveggja fullt með hveitimjøl, og var viðsmjøri hellt yfir, til matoffurs; 20. einn bolla, 10 sikla gulls, fullan af reykelsi., 21. úngan bola, hrút og ársgamalt lamb til brennifórnar; geithafur til syndafórnar; 23. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrúta, 5 kjarnhafra og 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Netaneels sonar Súars.

24. Á þriðja degi (kom) Sebúlons sona høfuðsmaður, Eliab, sonur Helons. 25. Hans gáfa var: silfur fat, sem vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla eptir helgidóms sikli, hvørtveggja fullt af hveitimjøli, viðsmjøri var hellt yfir, til matoffurs; 26. bolli, 10 sikla gulls, fullur af reykelsi; 27. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb til brennifórnar; 28. geithafur til syndafórnar; 29. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Eliabs, sonar Helons.

30. Á fjórða degi høfuðsmaður Rúbenssona Elisur, sonur Sedeurs. 31. Hans gáfa var: silfur fat, 130 sikla silfurs vóg það; silfur skál, 70 sikla silfurs, eptir helgidóms sikli, hvørtveggja fullt með hveitimjøl, viðsmjøri var hellt yfir, til matoffurs; 32. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi; 33. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb til brennifórnar; 34. geithafur til syndafórnar, 35. og til þakkarfórnar, 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb árs gømul. Þetta var gáfa Elisurs, sonar Sedeurs.

36. Á fimta degi høfuðsmaður Simeonssona, Selumjel, sonur Súrisaðais. 37. Hans gáfa var: silfurfat, það vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla eptir helgidóms sikli; hvørtveggja fullt með hveitimjøl, og viðsmjøri var hellt yfir, til matoffurs; 38. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi; 39. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb til brennifórnar; 40. geithafur til syndafórnar; 41. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Selumjels, sonar Súrisaðais.

42. Á sjøtta degi, Gaðssona høfuðsmaður, Eliasaf sonur Deguels. 43. Hans gáfa var: silfur fat, það vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla eptir helgidóms sikli, hvørtveggja fullt með hveitimjøl, viðsmjøri var hellt yfir, til matoffurs; 44. bolli, 10 siklar gulls, fullur með reykelsi; 45. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb, til brennifórnar; 46. geithafur til syndafórnar. 47. Og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Það var gáfa Eliasafs, sonar Deguels.

48. Á sjøunda degi høfuðsmaður Efraimssona, Elisama, sonur Amihuðs. 49. Hans gáfa var: silfur fat, sem vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla eptir helgidóms sikli; hvørtveggja fullt með hveitimjøl, viðsmjøri var hellt yfir til matoffurs; 50. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi; 51. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb til brennifórnar; 52. geithafur til syndafórnar; 53. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Elisama, sonar Amihuðs.

54. Á áttunda degi Manasšis sona høfuðsmaður, Gamliel, sonur Pedasurs. 55. Hans

gáfa var: silfurfat, sem vóg 130 sikla silfurs; og silfur skál, 70 sikla, eptir helgidóms sikli, hvørtveggja fullt af hveitimjøli, yfir var hellt vidsmjøri, til matoffurs; 56. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi; 57. úngur boli, hrútur og ármsgamalt lamb til brennifórnar; 58. geithafur til syndafórnar; 59. og til þakkarfórnar, 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Gamliels sonar Pedasurs.

60. Á 9da degi høfudsmadur Benjamíns sona Abidan sonur Gideons. 61. Hans gáfa var: silfurfat, sem vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla, eptir helgidóms sikli; hvørtveggja fullt med hveitimjøl, þar yfir var hellt vidsmjøri, til matoffurs; 62. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi, 63. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb til brennifórnar; 64. geithafur til syndafórnar; 65. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Það var gáfa Abidans, sonar Gideons.

66. Á 10da degi høfudsmadur Dans sona Ahiesers, sonur Ammisadais. 67. Hans gáfa var: silfur fat, þad vóg 130 sikla silfurs; silfur skál 70 sikla silfurs, eptir helgidóms sikli, hvørtvegggja fullt med hveitimjøl, yfir var hellt vidsmjøri, til matoffurs; 68. bolli, 10 siklar gulls, fullur af reykelsi; 69. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb til brennifórnar; 70. Geithafur til syndafórnar; 71. Og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Ahiesers, sonar Ammisadais.

72. Á 11ta degi Asserssona høfudsmadur, Pagíel sonur Okrans. 73. Hans gáfa var: silfurfat, sem vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla silfurs eptir helgidóms sikli; hvørtveggja fullt med hveitimjøl sem yfir var hellt vidsmjøri, til matoffurs; 74. bolli, 10 sikla gulls, fullur af reykelsi; 75. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb, til brennifórnar; 76. Geithafur til syndafórnar; 77. Og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Pagíels, sonar Okrans.

78. Á 12ta degi høfudsmadur Naftali sona Ahíra, sonur Enans. 79. Hans gáfa var: silfur fat, þad vóg 130 sikla silfurs; silfur skál, 70 sikla silfurs, eptir helgidóms sikli; hvørtveggja fullt med hveitimjøl, til matoffurs; 80. bolli, 10 siklar gulls, fullur med reykelsi; 81. úngur boli, hrútur, ársgamalt lamb, til brennifórnar; 82. Geithafur til syndafórnar; 83. og til þakkarfórnar 2 naut, 5 hrútar, 5 kjarnhafrar, 5 lømb ársgømul. Þetta var gáfa Ahíra, sonar Enans.

84. Þetta var altarisins vígslu gáfa, daginn sem þad var smurt, af Ísraels høfudsmanna hendi: 12 silfur føt, 12 silfur skálar, 12 gullbollar; 85. 130 siklar silfurs hvørt fat, og 70 siklar silfurs hvør skál; allt silfur áhaldanna 2400 siklar silfurs eptir helgidóms sikli. 86. 12 gull bollar, fullir af reykelsi, hvør bolli 10 siklar, eptir helgidóms sikli; allt gull bollanna 120 siklar. 87. Øll naut til brennifórnar 12 bolar, 12 hrútar, 12 lømb ársgømul, og matoffrid ad auk, og 12 geithafrar til syndafórnar. 88. Og øll naut til þakkarfórnar 24ir bolar, 60 hrútar, 60 kjarnhafrar, 60 lømb ársgømul. Þetta var vígslu gáfa altarisins, eptir ad þad var smurt, (vígt).

89. Og þegar Móses gékk inn í samkundu tjaldid, til ad tala vid hann (Drottinn) svo heyrdi hann raustina sem vid hann taladi frá lokinu, er var á løgmálsørkinni, milli beggja Kerúbanna, og hann taladi vid hann. 2. Msb: 25, 21. 22.

## 8. Kapítuli.

*Vígsla Levítanna.*

1. Og Drottinn taladi vid Móses og
mælti: 2. tala þú vid Aron og seg til hans:
þegar þú setur upp lampana, þá skulu þeir
7 lampar loga framaná ljósahjálminum. 3.
Og Aron gjørdi svo: framaná ljósahjálminn
heingdi hann lampana eins og Drottinn baud
Móses. 4. Og þetta var verkid á hjálminum:
drifid verk af gulli, bædi møndullinn og lil-
jurnar voru drifid verk, eptir því munstri sem
Drottinn hafdi sýnt Móses, høfdu menn gjørt
hjálminn.

5. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti:
6. tak þú Levítana frá Israels sonum og
hreinsa þá; 7. og þetta skalt þú vid þá gjøra
til ad hreinsa þá: støkk þú á þá syndalausnar
vatni, og þeir skulu láta rakhníf gánga yfir
allan sinn líkama, og þvo sín klædi, og hreinsa
sig. 8. Og þeir skulu taka úngneyti, og mat-
offur ad auk, hveiti mjøl, yfir døggvad med
vidsmjøri, og annad úngneyti skalt þú taka til
syndafórnar. 9. Og leid svo Levítana fram-
fyrir samkundu tjaldid, og samansafna øllum
søfnudi Israels sona. 10. Og leid Levítana
fram fyrir Drottinn, og Israels synir skulu
leggja sínar hendur yfir Levítana. 11. Og
Aron skal veifa Levítunum sem veifun fyrir
Drottni, af hendi Israels sona, ad þeir séu til
þess (kjørnir) ad gégna þjónustu helgidóms-
ins. 12. Og Levítarnir skulu leggja sínar
hendur á høfud nautanna og offra ødru til
syndafórnar, en ødru Drottni til brennifórnar,
til ad fridþægja fyrir Levítana. 13. Og leid
þú Levítana fram fyrir Aron og fram fyrir
hans syni og veifa þeim sem veifun fyrir Drottni;
14. og adgreindu svo Levítana frá Israels
sonum, svo ad Levítarnir tilheyri mér. 15.
Svo skulu þeir koma til ad þjóna vid samkundu
tjaldid og hreinsa þú þá svona, og veifa þeim
sem veifun. 16. Því til eignar eru þeir mér
géfnir af Israels sonum; í stad hvørs frum-
burdar sem opnar módurlífid, medal Israels
sona hefi eg tekid mér þá. 17. Því mér til-
heyrdi allt frumborid medal Israels sona,
manna og fénadar; á þeim tíma er eg vann á
øllu frumbornu í Egyptalandi, hefi eg mér þad
helgad. 18. Og eg tók Levítana í stad alls
frumborins medal Israels sona. 19. Og eg
gaf Levítana Aroni og sonum hans til eignar
af Israels sonum, ad þeir gégni þjónustu Is-
raels sona vid samkundu tjaldid, og fridþægi
fyrir Israelssyni, ad ekki komi plága yfir Is-
raels syni, þegar Israels synir gánga inní
helgidóminn. 20. Og þetta gjørdi Móses og
Aron og allur søfnudur Israels sona vid Le-
vítana; eins og Drottinn hafdi bodid Móses
vidvíkjandi Levítunum, svo gjørdu Israels
synir vid þá. 21. Og Levítarnir hreinsudu
sig af syndum, og þvodu sín klædi, og Aron
veifadi þeim sem veifun fyrir Drottni, og Aron
fridþægdi fyrir þá þeim til hreinsunar. 22.
Sídan geingu Levítarnir til ad gégna sínni
þjónustu vid samkundu tjaldid, frammi fyrir
Aron og hans sonum; eins og Drottinn hafdi
bodid Móses vidvíkjandi Levítunum, svo gjørdu
þeir vid þá.

23. Og Drottinn taladi vid Móses og
mælti: 24. Þetta er þad sem gildir um Le-
vítana: hvør sem er 25 ára og þar yfir skal
koma til ad gánga í rødina til ad inngánga
til þjónustu vid samkundu tjaldid. 25. Og
hvør sem er fimtugur skal gánga útaf rød
þjónustunnar, og ekki þjóna úr því. 26.
Hann má þéna bródur sínum vid samkundu
tjaldid, og annast þad sem er ad annast;
en embættid má hann ekki hafa. Þannig
skalt þú fara med Levítana vidvíkjandi þeirra
sýslan.

## 9. Kapítuli.

*Páskar haldnir. Ferdir Israels manna.*

1. Og Drottinn taladi vid Móses í Sínaí eydimørku á ødru ári eptir burtfør þeirra úr Egyptalandi í fyrsta mánudi og mælti: 2. Israelssynir skulu halda Páska á tilteknum tíma. 3. Á 14da degi í þessum mánudi mót aptni skulud þér þá halda á tilteknum tíma; eptir øllum þeirra setníngum og øllum þeirra sidum skulud þér halda þá. 4. Og Móses taladi til Israelssona, ad þeir skyldu halda Páska. 5. Og þeir héldu Páska þann 14da dag í þeim fyrsta mánudi, mót aptni, í Sínaí eydimørku; eins og Drottinn hafdi bodid Móses, svo gjørdu Israelsbørn algjørlega. 6. Og þar voru menn, sem høfdu saurgast af líki framlidins manns, og gátu ei haldid páska þann sama dag; þeir geingu fyrir Móses og Aron þann sama dag. 7. Og þeir sømu menn søgdu vid hann: vér erum ordnir óhreinir af líki framlidins manns; hvar fyrir skulum vér standa á baki annara, ad vér ekki berum fórnargáfu Drottins fram á sínum tíma med Israelssonum. 8. Og Móses svaradi þeim: bídid, ad eg heyri hvad Drottinn býdur, ydur vidvíkjandi. 9. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 10. tala þú vid Israelssonu og seg: þegar einhvør er óhreinn af líki, eda hann er í lángferd, medal ydar, eda medal ydar nidja, svo haldi hann Drottni páska. 11. Í ødrum mánudi á 14da degi mót aptni skulu þeir þá halda; med ósýrdum (braudum) og beiskum jurtum skulu þeir eta páskalambid. 12. Þeir skulu ekkért af því leifa til morguns, og ekkért þess bein brjóta; eptir øllum setníngum páskanna, skulu þeir þá halda. 13. En hvør sem er hreinn og ekki er á ferd, og forsómar ad halda páska, þess sál verdi upprætt frá hans fólki, søkum þess hann frambar ekki Drottins fórnargáfu á réttum tíma; sá sami madur beri sína sekt. 14. Og sé framandi madur hjá ydur, þá haldi hann páska; eptir páska setníngum og þeirra sidum, haldi hann þá. Sama regla sé fyrir ydur og fyrir þann framandi, og fyrir þann í landinu fædda.

15. Og á þeim degi sem búdin var reist, huldi ský búd løgmáls tjaldsins, og um kvøldid var yfir búdinni ad sjá sem eld allt til morguns, 16. og svo var þad ávalt, ský huldi hana, og var á ad líta sem eldur væri á næturnar. 17. Og þegar skýid lyfti sér upp af tjaldinu, þá tóku Israelssynir sig upp; og þar sem skýid nam stadar, þar settu Israelssynir sínar herbúdir. 18. Ad Drottins bodi tóku Israelssynir sig upp, og ad Drottins bodi settu þeir sínar herbúdir; allann þann tíma sem skýid var kyrrt á búdinni, héldu þeir kyrru fyrir, 19. og medan skýid í lángan tíma stadnæmdist á búdinni, gjættu Israelssynir þess sem gjæta var Drottni vidvíkjandi, og tóku sig ekki upp. 20. Og þegar skýid var fáa daga yfir búdinni, svo láu þeir í herbúdunum eptir bodi Drottins, og eptir bodi Drottins, tóku þeir sig upp. 21. Og vildi þad til ad skýid væri frá kvøldi allt til morguns, og tæki sig upp um morguninn, svo toku þeir sig upp, eda hvørt heldur dag eda nótt, ef skýid tók sig upp, svo tóku þeir sig upp; 22. eda tvo daga eda einn mánud eda leingri tíma; svo leingi sem skýid var yfir búdinni, láu Israelssynir um kyrrt, og tóku sig ekki upp; en þegar þad hóf sig upp, svo tóku þeir sig upp. 23. Eptir bodi Drottins, settu þeir herbúdir og eptir bodi Drottins tóku þeir sig upp; þess sem var ad gjæta Drottins vegna, gjættu þeir eptir bodi Drottins fyrir milligaungu Móses.

## 10. Kapítuli.

*Silfur lúdrarnir. Fólkid fer frá Sínaí.*

1. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti:

2. gjør þér tvo lúdra af silfri, af drifnu verki skulu þeir vera, ad þú gétir brúkad þá til ad saman kalla fólkid, og þá herbúdirnar skulu flytjast. 3. Og sé blásid í þá báda, skal allur søfnudurinn koma til þín ad dyrum samkundu tjaldsins. 4. Og þegar ad eins er blásid í annann, svo skulu høfudsmennirnir koma til þín, fyrirmenn Ísraelsflokka, 5. og sé ákaflega í þá blásid, skulu herbúdirnar flytjast, þær sem eru mót austri; 6. og sé ákaflega blásid í annad sinn skulu þær herbúdir taka sig upp, sem eru mót sudri. Lúdrana skal ákaflega þeita, þá þér takid ydur upp. 7. En þá þér saman safnid søfnudinum, skulud þér blása, en ekki blása ákaflega. 8. Og prestarnir, Arons synir skulu þeyta lúdrana, og þetta skal vera ævarandi regla hjá ydar eptirkomendum. 9. Og þá þér farid í strìd í ydar landi móti ydar óvinum, sem á ydur herja, svo blásid ákaflega í lúdrana, og ydar mun minnst verda hjá Drottni, ydar Gudi, og þér munud verda frelsadir frá ydar óvinum. 10. Og á ydar gledi døgum og á ydar hátídum, og á ydar túnglkomu døgum, skulud þér blása í lúdrana vid ydar brennifórnir og þakkarfórnir ad þeir séu ydur til endurminníngar fyrir ydar Gudi. Eg em Drottinn, ydar Gud.

11. Og þad skédi á ødru ári, í ødrum mánudi á 20ta degi mánadarins, ad skýid tók sig upp af løgmálsbúdinni. 12. Og Ísraelssynir tóku sig upp, á sinni ferd, úr Sínaí eydimørku, og skýid nam stadar í eydimørkinni Paran. 13. Og þessir tóku sig fyrst upp eptir bodi Drottins fyrir Móses, 14. merki Júdasona herbúda fyrst, med sínum her, en fyrir þeirra her var Nahesson sonur Amminadabs; 15. Og yfir her Ísaskarssona ættkvíslar Netaneel sonur Súars. 16. Og yfir her Sebúlonssona ættkvíslar Eliab sonur Helons. 17. Og búdin var ofantekin, og synir Gersons tóku sig upp og synir Meraris, sem fluttu búdina. 18. Og merki Rúbens herbúda tók sig upp med sínum her; en yfir þess her var Elísur, sonur Sedeurs. 19. Og yfir her Símeonssona ættkvíslar var Selumiel sonur Súrisadais. 20. Og yfir her Gadssona ættkvíslar Eliasaf, sonur Degúels. 21. Og Kahatitar tóku sig upp sem báru helgidóminn; og hinir settu upp búdina þángad til þeir komu. 22. Og merki Efraims sona tók sig upp med sínum her; en yfir þess her var Elísama sonur Ammihuds; 23. og yfir her Manassissona ættkvíslar var Gamliel sonur Pedasurs; 24. og yfir her Benjamínssona ættkvíslar Abidan sonur Gideons. 25. Og merki Dans sona herbúda tók sig upp med sínum her, þad fór seinast allra herbúdanna, yfir þess her var Ahieser sonur Ammisadais; 26. og yfir her Asserssona ættkvíslar var Pagiel, sonur Okrans; 27. og yfir her Naftalíssona ættkvíslar, Ahira, sonur Enans. 28. Þannig tóku Ísraelssynir sig upp med sínn her, og løgdu af stad.

29. Þá sagdi Móses vid Hobab, son Regúels Midianítans, Mósis teingdafødurs: vér tøkum oss nú upp, (og førum) til þess stadar, um hvørn Drottinn hefur sagt: eg vil géfa ydur hann; því Drottinn hefir heitid Ísrael gódu. 30. Og hann svaradi honum: eg vil ekki fara med, heldur vil eg fara í mitt land og til míns heimkinnis. 31. Og hann (Móses) sagdi: yfirgéfdu oss ekki! því þú veitst, hvar vér eigum ad tjalda í eydimørkinni, og vertu oss svo auga. 32. Og farir þú med oss, og komi fram vid oss þad góda, sem Drottinn vill oss veita, þá viljum vér launa þér gódu. 33. Og svo tóku þeir sig upp frá fjalli Drottins (og fóru) þrjár dagleidir, og sáttmáls ørk Drottins fór undan þeim þrjár dagleidir, til ad vísa þeim á

V. 31. leidtogi.

áfángastad. 34. Og ský Drottins var yfir þeim á þeim degi sem þeir tóku sig upp úr herbúdunum. 35. En er ørkin var upptekin mælti Móses: stattu upp, Drottinn, ad þínir óvinir tvístrist, og þeir sem þig hata flýi fyrir þér. 36. Og þegar hún nam stadar, sagdi hann: safna þú híngad, Drottinn, þúsundum Israels flokka.

## 11. Kapítuli.

Elds uppkoma í herbúdunum. Girndar grafirnar.

1. Og fólkid klagadi sína neyd fyrir eyrum Drottins, og Drottinn heyrdi þad, og hans reidi upptendradist, og þar kviknadi eldur Drottins medal þeirra, og eyddi því ytsta af herbúdunum. 2. Þá hrópadi fólkid til Mósis, og Móses bad Drottinn, þá slokknadi eldurinn; 3. og menn kølludu þennan stad Tabera (eldsvoda) því eldur Drottins brann medal þeirra.

4. Og skríllinn medal þeirra var girugur, snéri sér undan og grét, og líka Israelssynir, og søgdu: hvør géfur oss kjøt ad eta? 5. vér munum til þeirra fiska, sem vér átum, fyrir ekkért, í Egyptalandi, agúrkna og melóna og lauksins, rauda lauksins og hvíta lauksins. 6. En nú eru vorar sálir uppþornadar; hér er ekkért; vér sjáum ekkért nema Man. 7. En Man var eins og Koriander fræ og korn þess kristalføgur (þess útlit eins og útlit bedólans). 8. Fólkid hljóp um kríng og safnadi því og maladi þad í mylnum, eda muldi þad í mortéli, og sudu þad í pottum og gjørdu úr því køkur, og þess smekkur var eins og smekkur af vidsmjørs køkum. 9. Og þegar døgg féll á nóttum yfir herbúdirnar, svo féll Man og þar á. 10. Og Móses heyrdi fólkid gráta, hvørn med sínum ættíngjum í dyrum síns tjalds; þá upptendradist Guds reidi ákaflega, og Móses armæddist af því. 11. Og Móses sagdi vid Drottinn: því breitir þú svo illa vid þinn þjón, og því finn eg ekki nád í þínum augum, ad þú skulir leggja á mig byrdi alls þessa fólks? 12. Hefi eg gengid þúngadur ad øllu þessu fólki, hefi eg borid þad í heiminn, ad þú segir vid mig: ber þad í þínum fadmi, eins og fóstri ber brjóstbarn, inní landid, sem þú sórst þeirra fedrum. 13. Hvadan skal eg taka kjøt til ad géfa øllu þessu fólki? því þeir gráta uppá mig og segja: géf oss kjøt ad vér etum! 14. Eg orka ekki ad bera allt þetta fólk; því þad er ofþúngt fyrir mig. 15. Og ef þú ætlar ad fara svona med mig, þá sálga þú mér heldur, hafi eg fundid nád í þínum augum, svo eg ekki sjái mína neyd!

16. Þá mælti Drottinn vid Móses: safna þú mér 70 mønnum af þeim eldstu í Israel, sem þú þekkir ad eru þeir eldstu medal fólksins, og þess yfirmenn, og kom þú med þá ad samkundu tjaldinu og láttu þá skipa sér þar nidur hjá þér. 17. Og eg vil nidurkoma, og tala þar vid þig, og eg vil taka af þeim anda, sem yfir þér er, og leggja yfir þá, svo þeir beri med þér fólksins þúnga, og þú berir hann ekki einn. 18. Og til fólksins skaltu segja: helgid ydur til morgunds, þá skulud þér kjøt eta; því þér hafid grátid fyrir eyrum Drottins og sagt: hvør géfur oss kjøt ad eta! því vel leid oss í Egyptalandi; og Drottinn mun géfa ydur kjøt ad þér etid. 19. Þér skulud ekki eta (kjøt) einn dag, og ekki tvo og ekki 5 daga og ekki 10 daga og ekki 20 daga; 20. heldur allt ad mánudi; þángad til þad geingur út af ydar nøsum, og verdur ydur ad vidbjód, af því þér hafid burtskúfad Drottni sem medal ydar er, og fyrir honum grátid og sagt: hvar fyrir erum vér komnir burt úr Egyptalandi? 21. Og Móses sagdi: fólkid er 6 hundrud þúsund manns sem eg er med, og þú segir: kjøt vil eg þeim géfa ad þeir eti í heilan mánud. 22. Á þá ad slátra fyrir þá smáfénadi og nautum, ad þeim dugi? skulu allir fiskar

sjáfarins híngad flytjast, svo nóg verdi fyrir þá? 23. Og Drottinn mælti vid Móses: er Drottins hønd of stutt? Nú skaltu sjá, hvørt mín ord, vid þig, rætast eda ekki.

24. Og Móses gékk burt og bar fólkinu Drottins ord, og samansafnadi 70 manns af fólksins øldúngum og skipadi þeim nidur allt í kríngum tjaldid. 25. Þá kom Drottinn nidur í skýinu, og taladi vid hann, og tók af þeim anda sem yfir honum var, og lagdi hann á þá 70 menn, øldúngana. Og þad skédi, þá andinn kom yfir þá, svo spádu þeir, og ekki eptir þad. 26. Og tveir menn voru eptir í herbúdunum, annar hét Eldad, en hinn Medad, og andinn kom yfir þá (þeir voru medal þeirra uppskrifudu, en høfdu ekki geingid til tjaldsins) og þeir spádu í herbúdunum. 27. Þá kom smásveinn hlaupandi og sagdi Mósés frá og mælti: Eldad og Medad spá í herbúdunum. 28. Og Jósva, sonur Núns, þénari Mósis frá barndómi, svaradi og mælti: Móses, minn Herra, banna þeim þad! 29. En Móses svaradi honum: tekur þú upp þikkjuna fyrir mig? eg vildi ad allt Drottins fólk væri spámenn, svo Drottinn legdi sinn anda yfir þá (þad).

30. Og Móses gékk aptur í herbúdirnar, hann og Ísraels øldúngar. 31. Og vindur kom frá Drottni, og færdi Vaktelur frá sjónum, og kastadi þeim svo sem eina dagleid til herbúdanna, og híngad og þángad eina dagleid umkríng herbúdirnar og vid 2 álnir á hæd yfir jørdina. 32. Og fólkid tók sig til allan þann dag og alla þá nótt og allan daginn eptir og safnadi Vaktelum; sá sem safnadi litlu, hann safnadi 10 homer, og þeir breiddu þær út allt í kríng um herbúdirnar. 33. Kjøtid var enn nú milli þeirra tanna, enn nú var þad ekki uppunnid, þegar reidi Drottins upptendradist vid fólkid, og Drottinn lét þar verda mjøg mikin mannfellir medal fólksins. 34. Og menn kølludu þann stad girndar grafir, af því ad þeir gírugu medal fólksins vóru þar grafnir. 35. Frá girndar grøfunum fór fólkid til Haserot, og þeir stadnæmdust í Haserot.

## 12. Kapítuli.

María verdur líkþrá.

1. Og María og Aron átøldu Móses sakir þeirrar mórlendsku konu, sem hann hafdi tekid; því mórlendska konu hafdi hann tekid sér. 2. Og þau søgdu: talar þá Drottinn ad eins vid Móses? talar hann ei líka til vor? Og Drottinn heyrdi þad. 3. En madurinn Móses var mikid hógvær, fremur enn allir menn á allri jørdunni. 4. Þá taladi Drottinn hastarlega til Móses, Arons og Maríu: farid þid þrjú til samkundu tjaldsins! og þau geingu þángad øll þrjú. 5. Þá kom Drottinn nidur í skýstólpanum og gékk í dyr samkundu tjaldsins og kalladi Aron og Maríu, og þau geingu bædi þar ad. 6. Og hann sagdi: heyrid mín ord! þegar spámadur er medal ydar, svo opinberast eg Drottinn honum í sýn; í draumi tala eg vid hann. 7. Ekki stendur svo á hvad minn þénara Móses áhrærir, honum er trúad fyrir øllu mínu húsi. 8. Eg tala vid hann munnlega, og læt hann skoda, og ekki í myndum, hann sjer Drottins skapnad. Og því vorud þid þá ekki hrædd vid ad mæla í móti mínum þénara Móses. 9. Og reidi Drottins upptendradist gégn þeim, og hann fór burt, 10. og skýid fór burt frá tjaldinu, og sjá! María var líkþrá (hvít) sem snjór; og Aron leit til Maríu, og sjá! hún var líkþrá. 11. Þá sagdi Aron vid Móses: æ minn Herra! tilreikna oss ekki þessa synd, ad

V. 25. Andans gjøf verkadi svo á þá, þegar þeir voru kosnir til ad hjálpa Móses, ad þeir tøludu andans máli þ. e. krøptuglega.

vid vorum heimsk og ad vid høfum syndgad!
12. láttu hana ekki vera sem andvana fædt
(barn) hvørs hálfa hold þá þad kémur af móð-
ur lífi, er rotnad! 13. Þá hrópadi Móses til
Drottins og mælti: æ Drottinn gjør hana heil-
brigda! 14. Og Drottinn sagdi vid Móses: en
hefdi fadir hennar hrækt í hennar andlit, skyldi hún
þá ei hafa skammast sín í 7 daga? hún skal í
7 daga vera innilokud utan herbúda, og eptir
þad má hún inntakast aptur. 15. Og svo
var María innilokud utan herbúda í 7 daga,
og fólkid tók sig ekki upp fyrr en María var
aptur inntekin. 13. Kap. 1. Og þar eptir tók
fólkid sig upp frá Hasarot og setti herbúdir sín-
ar í eydimørkinni Paran.

## 13. Kapituli.

Njósnarmenn sendir til Kanaanslands.

2. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti:
3. gjør þú út menn til ad njósna um Kanaans-
land sem eg géf Ísraelssonum, einn skulud þér
senda fyrir hvørs eins fødurlega ætt, eintóma
yfirmenn medal þeirra. 4. Þá sendi Móses
þá úr eydimørkinni Paran eptir Drottins skip-
un; þeir menn voru eintómir Høfudsmenn Ísra-
elssona. 5. En þetta eru þeirra nøfn: fyrir
Rúbens ættkvísl, Sammua sonur Sakkurs; 6.
fyrir Simeons ættkvísl, Safat, sonur Hóris.
7. fyrir Júda ættkvísl, Kaleb, sonur Jefunnes;
8. fyrir Ísaskars ættkvísl, Igal, sonur Jóseps;
9. fyrir Efraims ættkvísl, Hósea, sonur Núns;
10. fyrir Benjamíns ættkvísl, Palti, sonur Ra-
fús; 11. fyrir Sebúlons ættkvísl, Gaddiel son-
ur Sodis; 12. fyrir Jóseps ættkvísl, af Manas-
sis ættlegg, Gaddi, sonur Súsis; 13. fyrir
Dans ættkvísl, Ammiel, sonur Gemallis; 14.
fyrir Asers ættkvísl, Setur, sonur Mikaels;
15. fyrir Naftalis ættkvísl, Nakbi, sonur Vaf-
sis; 16. fyrir Gads ættkvísl, Geúel, sonur
Makis; 17. Þetta eru nøfn þeirra manna sem
Móses sendi til ad kanna landid. En Móses
kalladi Hósea, son Núns, Jósva. 18. Og svo
sendi Móses þá til ad skoda Kanaans land og
mælti til þeirra: 19. farid hérna til sudurs og far-
id eptir fjøllunum, og skodid landid hvørnig þad
er, og fólkid, sem í því býr, hvørt þad er styrk-
legt eda veiklegt, fátt eda margt, 20. og
hvørnig landid er, í hvørju þad býr, hvørt þad
er gott eda slæmt, og hvørnig stadirnir eru,
sem þad býr í, hvørt í tjøldum eda borgum, 21.
og hvørnig landid er, hvørt þad er feitt eda
magurt, hvørt þar eru tré (skógar) eda ekki?
og verid øruggir, og komid med nokkud af
landsins ávøxtum. En þessi tími var tími
þeirra fyrstu vínberja.

22. Nú fóru þeir af stad og skodudu landid
frá eydimørkinni Sín allt til Rehob, gagnvart
Hemat. 23. Þeir fóru svo sudurá vid og
komu til Hebron, þar voru þeir Ahiman, Sesai
og Talmai, Enakssynir; en Hebron var bygd
sjø árum fyrr en Sóan í Egyptalandi. 12.
Og þeir komu í dalinn Eskol, og snidu þar af
vínvidar grein og vínþrúgu, og báru hana tveir
á staung, þaradauki nokkur Granatepli og fík-
jur. 25. Þenna stad kølludu menn Eskols dal
(vínþrúgnadal) vegna vínþrúgnanna, sem Ís-
raelssynir høfdu þar afsnidid. 26. Og þeir
snéru aptur frá skodun landsins, eptir 40 daga.
27. Og þeir geingu, og hittu aptur Móses og
Aron og allan søfnud Ísraelssona í eydimørk-
inni Paran, gégnt Kades, og færdu þeim og
øllum sofnudinum fregn, og létu þá sjá lands-
ins ávexti.

28. Og þeir søgdu honum frá og mæltu:
vér komum í landid, hvørt þú sendir oss, og
ad sønnu flýtur þad í mjólk og hunángi, og
þetta er þess ávøxtur; 29. En þad er sterkt
fólk sem í landinu býr, og þær føstu borgir
mikid stórar, og líka sáum vér þar Enaks syni.
30. Amalekítar búa sudur í landinu; og Het-

ítar og Jebúsítar og Amorítar búa á fjøllunum,
og Kananítar búa vid sjóinn, og vid Jórdan.
31. Og Kaleb þaggadi nidur fólkid (sem tal-
adi) móti Móses, og mælti: þángad skulum vér
fara og inntaka landid, því vinna munum vér
þad. 32. En þeir menn, sem med honum
høfdu farid, søgdu: vér gétum ekki farid mót
þessu fólki, því þad er sterkara enn vér. 33.
Og þeir sem høfdu skodad, komu med íllar
fréttir af landinu til Ísraelssona og søgdu:
þad land sem vér fórum yfir til ad skoda, upp
etur sína innbúa, og allt fólkid, sem vér þar
sáum, er mikid hávaxid fólk, 34. og þar sá-
um vér risa, Enakssyni af risum (komna), og
vér vorum í eigin augum sem grashoppur, og
eins vorum vér í þeirra augum.

## 14. Kapítuli.

Fólkid møglar og er straffad þarfyrir.

1. Þá æpti allur søfnudurinn upp yfir sig,
og fólkid grét þá sømu nótt. 2. Og allir Ís-
raels synir møgludu gégn Móses og Aron, og
allur søfnudurinn sagdi vid þá: Gud gjæfi vér
hefdum dáid í Egyptalandi, eda vér dæum í
þessari eydimørku! 3. Því leidir Drottinn oss
í þetta land, svo ad vér føllum fyrir sverdi og
vorar konur og børn verdi ad herfángi? Er
ekki betra fyrir oss ad hverfa aptur til Egypta-
lands? og þeir søgdu hvør vid annann: setjum
oss høfdíngja og hverfum aptur til Egyptalands!
5. Þá féllu þeir Móses og Aron á sínar
ásjónur til jardar, fyrir allri samkomu Ísra-
elssona safnadar. 6. Og Jósva sonur Núns,
og Kaleb sonur Jefunnes, tveir af þeim sem
høfdu skodad landid, rifu sín klædi, 7. og søgdu
vid allan søfnud Ísraelssona: þad land sem
vér fórum yfir ad skoda er mikid, mikid gott.
8. Sé Drottinn oss hlidhollur, svo flytur hann
oss í þetta land, og géfur oss þad, landid
sem flýtur í mjólk og hunángi. 9. Gjørid ad
eins ekki uppreisn móti Drottni, og hrædist ekki
landsfólkid, því þad er vort braud, vikin er frá
þeim þeirra vørn, og Drottinn er med oss;
verid óhræddir! 10. Þá ætladi allur søfnud-
urinn ad grýta þá. En dýrd Drottins opinber-
adist øllum Ísraelssonum, í samkundu tjald-
búdinni. 11. Og Drottinn sagdi vid Móses:
hvørsu leingi vill þetta fólk útskúfa mér, og hvørsu
leingi ekkért traust á mér hafa, svo mørg und-
ur sem eg hefi gjørt medal þeirra? 12. Eg
vil senda því drepsótt, og afmá þad, og gjøra
þig ad þjód, stærri og sterkari enn þad er.
13. Og Móses sagdi vid Drottinn: svo munu E-
gyptskir frétta þad, því med þínum krapti hefir þú
flutt þetta fólk burt frá þeim; 14. og menn munu
segja innbúum þessa lands, sem hafa heyrt, ad
þú, Drottinn, sért med þessu fólki, og látir
þad sjá þig bersýnilega, og ad þitt ský, Drott-
inn, yfir því standi, og þú gángir fyrir því í
ský-stólpa á daginn og í eldskýi á næturnar;
15. og deydir þú þetta fólk nidur í strá, svo
munu þjódirnar segja, sem hafa heyrt þína frægd:
16. af því Drottinn gat ekki komid þessu fólki
inn í landid, sem hann sór þeim, svo slátradi
hann (því) í eydimørkinni. 17. Og nú sýni
Drottins kraptur sig mikinn, eins og þú hefir
talad og sagt: 18. Drottinn er þolinnmódur
og nádarríkur, fyrirgéfur misgjørdir og yfir-
trodslur, en sem ei lætur alltíd (allt) óstraffad,
sem vitjar misgjørda fedranna á sonunum, í
þridja og fjórda lid. 19. Fyrirgéf misgjørd-
ir þessa fólks eptir stærd þinnar nádar, og eins
og þú hefir fyrirgéfid þessu fólki, frá Egypta-
landi híngad til. 20. Og Drottinn svaradi:
eg fyrirgéf eins og þú segir; 21. en svo sann-
arlega sem eg lifi, og Drottins dýrd uppfyllir
alla jørdina: 22. allir þeir menn, sem hafa
sjed mína dýrd og mín undur, sem eg gjørdi

V. 9. Vort braud: þad er í vorum høndum.

í Egyptalandi og í eydimørkinni, og nú hafa
freistad mín 10 sinnum, og ekki hlýdt raustu
minni, 23. þeir skulu ekki sjá landid sem eg
sór fedrum þeirra, og eingir sem mér hafa burt
skúfad, skulu sjá þad. 24. En minn þénara
Kaleb, af því annar andi er yfir honum, og
af því hann hefir algjørlega fylgt mér, haun
vil eg leida inní þad land, sem hann hefir
komid í, og hans nidjar skulu þad eignast.
25. En Amalekítar og Kananítar búa í døl-
unum; snúid nú vid á morgun og farid í eydi-
mørkina á leid til rauda hafsins.

26. Og Drottinn taladi vid Móses og Aron
og mælti: 27. hvørsu leingi (skal eg fyrirgéfa)
þessum vonda søfnudi sem móti mér møglar?
Møgl Ísraels sona, hvørsu þeir hafa møglad
móti mér, hefi eg heyrt. 28. Seg þú þeim:
svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn, eins
og þér hafid talad fyrir mínum eyrum, svo vil
eg vid ydur gjøra. 29. Í þessari eydimørku skulu
ydar líkamir falla, allra ydar sem taldir
erud eptir ydar tølu, frá tvítugs aldri og þar
yfir, ydur sem møglad hafid móti mér, 30.
þér skulud ekki koma inní landid, í hvørju
ad eg med eidi lofadi þér skyldud búa, nema
Kaleb sonur Jefunnis, og Jósva sonur Núns.
31. Og ydar børn sem þér tøludud um, ad
þau mundu verda ad herfángi, þau flyt eg
þángad, og þau skulu þekkja landid, sem þér
forsmádud; 32. en ydar líkamir skulu falla í
þessari eydimørku, 33. og ydar synir skulu
vera med hjardir í eydimørkinni í 40 ár, og
gjalda ydar fráfalls, (ótrúmennsku) þángad til
ydar líkamir eru afmádir í eydimørkinni. 34.
Eptir tølu þeirra 40 daga, á hvørjum þér
skodudud landid, ár fyrir hvørn dag, skulud þér
bera ydar misgjørníng í 40 ár, og verda þess
varir ad eg er horfinn frá ydur. 35. Eg
Drottinn hefi þad talad: sannarlega vil eg gjøra
þetta øllum þeim vonda søfnudi sem hefir gjørt
samtøk móti mér, í þessari eydimørku skulu
þeir afmádir verda, og þar skulu þeir deya.

36. Og þeir menn, sem Móses hafdi sendt
til ad skoda landid, og sem aptur komu, og
komu øllum søfnudinum til ad møgla móti hon-
um, því þeir létu útberast íllar fréttir af land-
inu; 37. þeir menn dóu sem útbreiddu ílla
frétt af landinu í plágu frá Drottni. 38. En
Jósva sonur Núns og Kaleb sonur Jefunnis,
lifdu eptir af þeim mønnum sem farid høfdu
ad skoda landid.

39. Og Móses taladi þessi ord til allra Ís-
raelssona; þá vard fólkid mjøg sorgbitid. 40.
Og þeir tóku sig upp um morguninn og fóru uppá
hæd fjallsins, og søgdu: hér erum vér og viljum
fara til þess stadar um hvørn Drottinn hefir
talad; því vér høfum syndgad. 41. Þá mælti
Móses: því yfirtrodid þér Drottins bod? þad
mun ei lukkast! 42. farid ekki þángad; því
Drottinn er ekki medal ydar, ad þér fallid ei
fyrir ydar óvinum. 43. Því Amalekítar og
Kananítar eru þar fyrir ydur, og þér munud
falla fyrir sverdi; sakir þess þér snérud ydur
frá Drottni, og Drottinn er ekki med ydur.
44. Og þeir voru einbeittir ad fara uppá fjalls
hædina; en sáttmáls ørk Drottins og Móses
viku ei úr herbúdunum. 45. Þá komu Ama-
lekítar og Kananítar, sem þá bjuggu á sama
fjalli, unnu þá og tvístrudu þeim allt til Horma.

## 15. Kapítuli.

Ymisleg løg. Straff fyrir vanhelgun hvíldardagsins. Minnisbarmarnir.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti:
2. tala þú vid Ísraelssyni og seg þeim: þeg-
ar þér komid í þad landid sem þér eigid ad bygg-
ja, er eg géf ydur, 3. og þér færid Drottni
fórn sem tendrast skal, brenni-fóru eda slátur-
fórn, vegna heilags áheitis, eda sjálfviljuglega,
eda á ydar hátídum, til ad gjøra Drottni þægi-

legan ilm, af nautum eda smáfénadi: 4. svo
komi hvør sá, sem fórnargáfu færir Drottni, med,
svo sem matoffur, hveitimjøl tíundapart, og sé hellt
yfir vidsmjøri fjórda parti af Hín; 5. og vín til
þakkarfórnar, fjórdapart af Hín, skaltu fram láta
til brennifórnarinnar, eda sláturfórnarinnar
med hvørjum saud. 6. Og med hrút skaltu fram=
bera tvo tíundu parta hveitimjøls, yfirdøggvada
med þridjaparti af Hín; 7. og vín til þakkarfórn=
arinnar skaltu fram bera þridjapart, þægilegan
ilm fyrir Drottni. 8. Og þegar þú fórnfærir
úngu nauti til brennifórnar, eda sláturfórnar,
vegna heilags áheitis, eda til þakkarfórnar
Drottni: 9. svo framberi madur med nautinu,
sem matoffur, þrjá tíundu parta hveitimjøls,
yfirdøggvada med vidsmjøri, hálfri Hín; 10.
og vín skaltu frambera til þakkarfórnar, hálfa
Hín, sem upptendrun þægilegs ilms fyrir Drottni.
11. Svo skal gjøra vid uxa eda vid hrút, eda
vid saud, eda vid geit; 12. Eptir tølu þeirri
sem þér offrid skulud þér gjøra vid hvad eitt,
eptir þess tølu. 13. Sérhvør innfæddur skal
gjøra þetta þannig, til ad færa Drottni upp=
tendran þægilegs ilms. 14. Og sé útlendur
madur medal ydar, eda hvør sem medal ydar
er hjá ydar nidjum, og hann færir Drottni
upptendrun þægilegs ilms: þá skal hann gjøra
eins og þér gjørid. 15. Allur søfnudurinn,
skal svo gjøra, ein regla sé fyrir ydur og útlend=
ínginn; eilíf regla fyrir ydar ókomnu kynslód=
ir; sem þér, svo skal og sá útlendi vera fyrir
Drottni. 16. Eitt løgmál, einn réttur skal vera
fyrir ydur og þann útlenda, sem hjá ydur býr.

17. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti:
18. tala þú vid Israelssyni og seg þeim: þeg=
ar þér erud komnir í þad land sem eg flyt
ydur í, 19. og þér etid af braudi landsins:
svo skulud þér géfa Drottni upplypting; 20.
sem frumgróda ydar korns skulud þér géfa
eina køku til upplyptíngar; eins og upplyptíngin
af ydar hlødu er, svo skulud þér og géfa þessa.
21. Af frumgróda ydar korns skulud þér géfa
Drottni upplypting, sømuleidis ydar nidjar.
22. Og þegar þér brjótid, og ekki haldid øll
þessi bodord, sem Drottinn hefur talad til
Móses, 23. allt sem Drottinn hefur ydur bod=
id fyrir Móses, frá þeim degi er hann gaf
ydur bodord, og uppfrá því til ydar eptirkom=
enda; 24. Og sé einhvør yfirsjón drýgd á
bak vid søfnudinn, svo fórnfæri allur søfnud=
urinn úngum bola, sem brennifórn til þægilegs
ilms fyrir Drottni, og þaradauki matoffur og
drykkjarfórn svo sem til heyrir, og geithafur
sem syndafórn. 25. Og presturinn forlíki
fyrir allan søfnud Israelssona, ad þeim fyrir=
géfid verdi, því yfirsjón var þad; en þeir færa
sína fórnargáfu, sem upptendrun, Drottni, og
sína syndafórn fram fyrir Drottinn, vegna
sinnar yfirsjónar. 26. Og svo verdur øllum
søfnudi Israelssona fyrirgéfid, og þeim útlenda
sem býr á medal þeirra; því hjá øllu fólkinu
(skédi þad) af yfirsjón.

27. Og þegar einhvør einn syndgar af yf=
irsjón svo komi sá med ársgamla geit til synda=
fórnar. 28. Og presturinn fridi þá sál fyrir
Drottni sem syndgadi af yfirsjón, gjøri forlík=
un fyrir hana, ad henni verdi fyrirgéfid, 29.
fyrir þann innfædda medal Israelssona og
fyrir þann útlenda sem medal þeirra býr; eitt
løgmál skal fyrir ydur vera, fyrir hvørn þann
sem misbrýtur. 30. En hvør sá sem eitthvad
adhefst med upplyptri hendi (af ásetníngi) inn=
fæddur eda útlendur, sá hinn sami forsmáir
Drottinn, og hin sama sál verdi upprætt frá
sínu fólki. 31. Því ord Drottins hefir hann
forsmád, og brotid hans bodord; upprætast
skal sú hin sama sál, hennar sekt hvílir á henni.

32. Og á medan Israelssynir voru í eydi=
mørkinni, fundu þeir mann nokkurn, sem tíndi
saman vid á hvíldar deginum. 33. Og þeir

sem fundu hann, þar sem hann var ad tína vidinn saman, leiddu hann fyrir Móses og Aron og fyrir allan søfnudinn. 34. Og þeir høfdu hann í vardhaldi; því þad var ei úr því skorid hvad vid hann skyldi gjøra. 35. Þá sagdi Drottinn vid Móses: madurinn skal deydast, allur søfnudurinn skal grýta hann utan herbúdanna. 36. Þá leiddi allur søfnudurinn hann út fyrir herbúdirnar og grýttu hann, svo hann dó, eins og Drottinn hafdi bodid Móses.

37. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 38. tala þú vid Israels sonu, og seg þeim, ad þeir gjøri sér køgnr á barm sinna klæda, fyrir þeirra nidja, og þeir skulu setja snúru af bláum purpura yfir køgrid á barminum. 39. Berid þetta sem køgur, ad þér horfid á þad, og munid til allra Drottins bodorda, og haldid þau, og ekki skygnist um eptir ydar hjørtum og eptir ydar augum, ad þér takid fram hjá (mér) med þeim, 40. til þess þér munid og haldid øll mín bodord, og séud helgir ydar Gudi. 41. Eg em Drottinn ydar Gud, sem hefi útleidt ydur úr Egyptalandi, til þess ad vera ydar Gud; Eg em Drottinn ydar Gud.

## 16. Kapítuli.

Kora, Datan og Abíram gjøra uppreisn.

1. Kora sonur Jesehars, sonar Kahats, sonar Leví, tók med sér Datan og Abíram syni Elíabs og On, son Pelets, børn Rúbens, 2. og þeir risu upp gégn Móses ásamt 250 af Israels børnum, sem vóru þeir yppurstu lýdsins, er kvaddir vóru vanalega til ad mæta á þíngum, nafnkunnir menn, 3. þeir tóku sig saman gégn Móses og Aron, og søgdu vid þá: látid bærilega! því allur þessi søfnudur tilsamans er heilagur og Drottinn er midt ámedal þeirra; því upphefjid þér ydur þar fyrir yfir Guds søfnud? 4. Þegar Móses heyrdi þetta, féll hann fram á sína ásjónu, 5. mælti vid Kora og allan hans flokk og sagdi: á morgun mun Drottinn leida í ljós hvør hans er, hvør heilagur er, og láta hann koma til sín; 6. þann sem hann útvelur mun hann láta koma til sín. Gjørid þar fyrir þannig: takid ydur glódarkér, Kora og allur hans flokkur, 7. leggid í þau eld og sáid þar yfir reykélsi fyrir augliti Drottins á morgun, og sá sem Drottinn útvelur hann skal vera heilagur. Gjætid ydar synir Leví! 8. Og Móses sagdi enn fremur vid Kora: heyrid synir Leví! 9. Þykir ydur þad lítid ad Israels Gud hefir fráskilid ydur frá søfnudi Israels barna, til ad láta ydur koma til sín, til ad þjóna ad samkundu-tjaldbúd Drottins, og ad standa frammi fyrir søfnudinum til ad þjóna honum. 10. Og hann lét þig og alla þína brædur syni Leví, med þér, koma nær, nú viljid þér líka ná í prests-embættid! 11. Þess vegna hefir þú og allur þinn flokkyr gjørt uppreisn gégn Drottni. Því hvad er Aron ad þér skulud møgla í gégn honum. 12. Þá sendi Móses til ad kalla á Datan og Abíram, syni Elíabs; en þeir svørudu: vér komum ekki! 13. Er þad oflítid ad þú hefir leidt oss úr því landi sem flýtur í mjólk og hunángi, til ad slá oss í hel í þessari eydimørku, ad þú þaráofan vilt drottna yfir oss? 14. Illa hefur þú leidt oss til þessa lands sem flýtur í mjólk og hunángi, og géfid oss til eignar akra og víngarda! ætlardu líka ad blinda menn þessa? vér komum ekki! 15. En Móses vard mjøg reidur og sagdi vid Drottinn: lít ekki vid matfórn þeirra! ekki einn asna hefi eg tekid frá þeim, ekki gjørt nokkrum af þeim mein! 16. Og vid Kora sagdi hann:

V. 3. Þ. e. Gudi helgadur og hafa þar fyrir allir jafnan rétt til ad verda prestar. V. 5 Þ. e. færa fórnir, sem eingin mátti gjøra nema prestarnir. V. 9. Sja 3, 5 — 39. Þ. e. hann er innsettur af Drottni, í því þér møglid á móti honum, møglid þér í móti Drottni. V. 14. Þ. e. stínga úr þeim augun svo þeir sjái ekki svik þin og drottnunar-girnd.

vertu og allur þinn flokkur hér á morgun í augsýn Drottins, þú og þeir og Aron! 17. Skal hvør taka sitt glódarkér, sá reykélsi þar yfir, og koma med þad fram fyrir Drottinn, hvør med sitt, alls 250 glódarkér; þú og Aron skulu líka taka hvør sitt glódarkér. 18. Hvør og einn tók þar fyrir sitt glódarkér, lét í þad eld og sádi þar yfir reykélsi og nam stadar vid inngánginn í samkundutjaldbúdina ásamt med Móses og Aron. 19. En Kora samansafnadi í móti þeim øllum søfnudinum vid inngánginn í samkundu-tjaldbúdina, og dýrd Drottins birtist øllum søfnudinum. 20. Þá taladi Drottinn vid Móses og Aron og sagdi: 21. takid ydur burt frá þessum søfnudi og eg mun í einu augabragdi afmá þá! 22. En þeir féllu fram á sínar ásjónur og søgdu: alvaldi Gud! Skapari alls þess sem lífs anda dregur! þessi eini madur ætladi ad syndga, muntu þar fyrir reidast øllum søfnudinum? 23. Þá taladi Drottinn vid Móses og sagdí: 24. tala þessum ordum vid søfnudinn: víkid frá tjøldum Koras, Datans og Abírams allt um kríng. 25. En Móses stód upp og gékk til Datans og Abírams, og øldúngar Ísraels fylgdu honum, 26. og hann taladi til safnadarins, og sagdi: víkid frá tjøldum þessara ógudlegu manna, og snertid ekki neitt af því sem þeim tilheyrir, ad þér ekki fyrirfarist søkum þeirra synda. 27. Þeir viku þar fyrir burtu frá Koras, Datans og Abírams tjøldum allt um kríng, en Datan og Abíram geingu út og stódu vid tjalddyrnar ásamt konum sínum, sonum og úngbornum. 28. Þá sagdi Móses: þaraf skulud þér þekkja ad Drottinn hefir sendt mig til ad gjøra øll þessi verk og ad eg ekki gjøri þau eptir eigin hugþótta, 29. ef þessir menn deya eins og adrir menn og ef Drottinn straffar þá uppá sama hátt og adra menn, þá hefir Drottinn ekki sendt mig; 30. en ef Drottinn lætur nokkud óvenjulegt ské, svo ad jørdin opnar munn sinn og svelgir þá í sig og allt sem þeim tilheyrir, og þeir fara lifandi nidur til helju, þá hafid þad til merkis um ad þessir menn hafa forsmád Drottinn. 31. Og sjá! rétt í því hann hafdi mælt þessi ord, rifnadi jørdin undir fótum þeim, 32. og hún opnadi munn sinn og svelgdi þá og hýbýli þeirra, og alla þá menn sem voru med Kora og alla þeirra fjármuni; 33. og þeir fóru med øllum sínum áhángendum lifandi nidur til helju, jørdin huldi þá, og þeir vóru þannig afmádir midt úr søfnudinum. 34. En allir Ísraelítar, sem stódu í kríngum þá, flýdu er þeir heyrdu óp þeirra, því, þeir hugsudu ad jørdin annars líka mundi uppsvelgja sig. 35. Sídan útgékk eldur frá Drottni, er eyddi þeim 250 mønnum, sem reykélsid høfdu upptendrad. 36. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 37. Seg vid Eleasar son Arons prests, ad hann skuli taka glódarkérin úr loganum og dreifa eldinum úr þeim vídsvegar, því þau hafa verid ætlud til helgrar brúkunar, 38. nefnilega glódarkér þeirra, sem med syndum sínum ollu sér dauda, skuli fletja þau út í þunnar skífur og klæda med þeim altarid, því þeir komu med þau fram fyrir Drottinn og ætludu þau til helgrar brúkunar, og skulu þau vera Ísraels børnum til minnismerkis. 39. Presturinn Eleasar tók þess vegna eirglódarkérin, sem þeir sem brenndir voru høfdu komid med, og þegar búid var ad fletja þau út, klæddu þeir altarid med þeim 40. Ísraels børnum til minnismerkis, ad einginn útlendur (óvidkomandi) sem ekki væri af Arons ætt, skyldi géfa sig til ad bera reykjarfórn fram fyrir Drottinn, svo ad ekki færi eins fyrir honum og Kora og hans féløgum, eins og Drottinn hafdi sagt honum, fyrir Móses.

41. Daginn eptir møgladi allur lýdur Ísraels barna gégn Móses og Aron og sagdi:

þid hafid slegid í hel lýd Drottins. 42. En sem søfnudurinn safnadist saman gégn Móses og Aron og þeir litu til samkundu-tjaldbúdarinnar, sjá! þá huldi skýid hana og dýrd Drottins birtist; 43. og Móses og Aron geingu fram fyrir samkundutjaldbúdina. 44. Þá taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 45. víkid burt frá lýd þessum, eg vil skjótlega afmá hann! en þeir féllu framm á ásjónur sínar. 46. Og Móses sagdi vid Aron: tak glódarkér, lát eld í þad af altarinu, sá svo reykélsi þar yfir og gakk í skyndi til safnadarins og fridþæg fyrir þá, því Guds reidi er farin ad koma í ljós, plágan byrjud! 47. Þá tók Aron, eins og Móses hafdi bodid honum, og hljóp inni midjan søfnudinn, og sjá! plágan var byrjud medal þeirra; og hann strádi reykélsinu, og fridþægdi fyrir þá, 48. þar sem hann stód á milli þeirra daudu og lifandi, og plágan hætti. 49. En þeir sem dóu í þessari plágu voru 14 þúsundir og 7 hundrud, auk þeirra sem dóu Koras vegna. 50. Og Aron snéri aptur til Móses til dyra samkundutjaldbúdarinnar, og plágan stilltist.

## 17. Kapítuli.

Um staf Arons.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 2. tala vid Ísraels børn, og tak af þeim 12 stafi, einn af hvørjum ættlegg, einn af hvørjum ættar-høfdíngja, og skrifa nafn hvørs eins á hans staf; 3. en nafn Arons skaltu rita á staf Levís, því sinn stafur skal vera fyrir sérhvørn ættar høfdíngja. 4. Og þú skalt leggja þá nidur í samkundu tjaldbúdinni fyrir framan løgmálid, hvar eg er vanur ad koma á fund ykkar, 5. og þad skal ské ad stafur þess manns, sem eg útvel skal blómgast, ad eg meigi hepta møglan Ísraels barna í gégn mér, er þeir møgla í gégn ydur. 6. Og Móses taladi vid Ísraels børn og allir þeirra høfdíngjar feingu honum stafi, hvør høfdíngi einn staf fyrir sinn ættlegg, tólf stafi alls, var Arons stafur medal (stafa) þeirra. 7. Móses lagdi þá stafina framm fyrir Drottinn, í løgmáls tjaldbúdinni; 8. en þegar Móses daginn eptir gékk þar inn, sjá! þá var fyrir ætt Levís stafur Arons blómgadur, svo ad hans blød voru útsprúngin, blómstur komin, og hann bar fullvaxin aldini. 9. Bar Móses nú alla stafina út frá augliti Drottins til Ísraels barna, svo þeir sæu þá, og hvør tók sinn staf. 10. Þá sagdi Drottinn vid Móses: ber aptur staf Arons framm fyrir sáttmálsørkina ad hann sé þar geymdur til minnismerkis fyrir þá sem óhlýdnir eru, svo ad møglan þeirra gégn mér enda taki og þeir ekki þess vegna deyi. 11. Og Móses gjørdi þannig eins og Drottinn hafdi bodid honum. 12. En Ísraels børn søgdu vid Móses: sjá! vér látum lífid, vér tortínustum, allir tortínunst vér! 13. Hvør sem kémur nærri tjaldbúd Drottins, deyr; munum vér þá allir tortínast?

## 18. Kapítuli.

Embætti og uppeldi presta og Levíta.

1. Og Drottinn sagdi vid Aron: þú og synir þínir og ætt fødur þíns med þér skulud lída straff fyrir þad sem brotid er á móti helgidóminum, og þú og synir þínir med þér skulu lída straff fyrir þad sem ydur yfirsjest í ydar prests embætti. 2. Þú skalt líka taka med þér brædur þína, kynkvísl Levís, ættkvísl fødur þíns, þeir skulu vera þér til adstodar og þjóna þér; en þú og synir þínir med þér skulu vera frammi fyrir vitnisburdar tjaldbúdinni; 3. þeir skulu gjæta þess sem þeim ber ad gjæta vid þig og samkundu-tjaldbúdina, en ekki meiga þeir koma

18. Kap. V. 2. Sjá! 3, 5 — 39.

nærri áhøldum tjaldbúdarinnar né altarinu, ad ekki bædi þeir og þér deyid; 4. þeir skulu vera þér til adstodar og gjæta þess sem starfa þarf ad samkundu-tjaldbúdinni, en enginn óvidkomandi má koma þar ad. 5. Gjætid þar fyrir þess sem gjæta þarf í samkundu-tjaldbúdinni og vid altarid, ad Ísraels børn ekki optar fái ad kénna á reidi Drottins! 6. Sjá! eg hefi tekid brædur ydar, Levítana, af Ísraels børnum, og géfid ydur þá, ad þeir skuli tilheyra mér, til ad þjóna vid samkundu-tjaldbúdina; 7. en þú og þínir synir med þér skulud gjæta ydar prests-embættis; skulud þér starfa ad øllu því sem altarinu vidvíkur, og gjøra þarf fyrir innan fortjaldid, því prests embættid géf eg ydur ad skeink; komi nokkur óvidkomandi þar ad skal hann deya! 8. Enn fremur sagdi Drottinn vid Aron: sjá! eg géf þér hlutdeild af upplyptíngarfórnum mínum; allt þad sem Ísraels børn helga, géf eg þér í þinn hluta og sonum þínum; skal sá sídur ætíd haldast. 9. Þetta skal tilheyra þér af því háheilaga, sem eldinum er fráskilid; allar þeirra fórnar-gáfur, bædi matfórnir þeirra, syndafórnir og sektafórnir, sem þeir færa mér, skulu vera þér og sonum þínum háheilagar; 10. á háheiløgum stad verdur þú ad eta þad; sérhvør karlmadur má eta þaraf, heilagt á þad ad vera þér. 11. Þetta tilheyrir þér: upplyptíngarfórnar-gáfur þeirra, ásamt veifíngarfórnum allra Ísraels barna; þad hefi eg géfid þér og sonum þínum og dætrum þínum med þér, skal þad æfinlega svo vera, hvør og einn sem hreinn er í þínu húsi má eta þar af; 12. allt þad besta af vidsmjørinu, allt þad besta af því nýa víni og af korninu, frumgróda þeirra hluta, sem þeir eiga ad géfa mér, géf eg þér; 13. frumgródi allra þeirra hluta, sem í landi þeirra vaxa, og sem þeir eiga ad fórnfæra Drottni, skal tilheyra þér, hvør og einn á heimili þínu, sem hreinn er, má eta þaraf; 14. allt þad sem bannfært er í Ísrael skal tilheyra þér; 15. allt þad sem opnar líf módur sinnar, af øllum þeim sképnum sem Drottni eiga ad fórnfærast bædi af mønnum og fénadi, skal tilheyra þér, en þó med því móti ad frumburdir manna og óhreinna dýra séu útleystir. 16. Þeir frumburdir sem útleysast, eiga ad útleysast mánadar gamlir, eptir þinni virdíngu, med 5 helgum silfur-siklum, gildir hvør sikill 20 gera. 17. En frumburdir af nautum, saudum, eda geitum meiga ekki útleysast, þeir eru heilagir, blódi þeirra skaltu støkkva á altarid og brenna fitu þeirra sem eldfórn Drottni til sæts ilms, 18. en kjøt þeirra skal tilheyra þér, sømuleidis veifíngarbríngan og hægri bógurinn. 19. Allar helgar upplyptíngarfórnir, sem Ísraels børn eiga ad færa mér, géf eg þér, sonum þínum og dætrum med þér, skal sá sídur æfinlega haldast, þessi sáttmáli vera órjúfandi og æfinlegur fyrir Drottni vid þig og nidja þína ásamt þér. 20. Og Drottinn sagdi vid Aron: þú skalt ekkért eignast í landi þeirra og ekki eiga hlut med þeim; eg em þitt hlutskipti og þín eign, medal Ísraels barna! 21. En børnum Levis géf eg alla tíundina í Ísrael til eignar fyrir þad starf sem þeir eiga á hendi ad hafa vid samkundutjaldbúdina; 22. og Ísraels børn meiga ekki framar koma nærri samkundutjaldbúdinni, ad þeir ekki gjøri sig dauda seka, 23. en Levítarnir skulu gjæta ad þjóna samkundutjaldbúdinni og skulu lida straff fyrir þad sem þeim í því tilliti yfirsjest — þad skal vera æfinleg regla hjá ydar nidjum, en med Ísraels børnum skulu þeir ekki eign eiga. 24. Því tíund Ísraels barna, sem þeir eiga ad færa Drottni, sem upplyptíngarfórn, hefi eg géfid Levítunum til eignar; þess vegna hefi eg sagt þeim ad þeir ekki skuli eignir eiga medal Ísraelsbarna.

V. 16. Helgum þ. e. þeir sem bestir eru af þeim.

25. Við Móses talaði Drottinn líka og sagði: 26. tala við Levítana og seg við þá: þegar þér takið þá tíund af Israels børnum, sem eg hefi gèfið ydur hjá þeim, ydur til eignar, þá skuluð þér færa mér þaraf upplyptíngarfórn, tíunda part af tíundinni, 27. og þessi ydar upplyptíngarfórn skal tilreiknast ydur einsog þér hefðuð fórnfært korni úr hlødunni og nægtum víns úr vínpressunni; 28. þannig skuluð einnig þér færa mér upplyptíngarfórn af allri þeirri tíund sem þér takið af Israels børnum, af því skuluð þér fá prestinum Aron upplyptíngarfórn Drottins 29. af øllu því sem ydur gèfst skuluð þér Drottni færa upplyptíngarfórn, það besta af því skuluð þér helga honum. 30. Og þú skalt segja við þá: þegar þér hafið komið með það besta af því, skal hitt vera að álíta sem hvað annað er tekið er úr hlødunni eða úr vínpressunni: 31. þið megið eta það hvar sem þið viljið, bæði þér og ætt ydar, því það eru launin fyrir það að þér þjónið að samkundutjaldbúðinni, 32. og það er eingin synd fyrir ydur ef þér komið með það besta af því sem upplyptíngarfórn og þá vanhelgið þér ekki það sem Israels børn hafa helgað né gjørist þarmeð dauða sekir.

## 19. Kapítuli.

Um hreinsunar vatnið.

1. Og Drottinn talaði við Móses og Aron og sagði: 2. Þetta er lagaboð sem Drottinn hefir gèfið og sagt: seg við Israels børn að þau skuli taka og leiða til þín rauða gallalausa kvígu, sem engin líti hefir og ekki hefir undir ok leidd verið, 3. skuluð þér fá hana prestinum Eleasar, og skal svo leiða hana út fyrir herbúðirnar og slátra henni í hans augsýn; 4. Þá skal presturinn Eleasar taka af blóði hennar á fíngri sér og støkkva því sjøsinnum mót austurhlið samkundu tjaldbúðarinnar, 5. svo skal uppbrenna kvíguna fyrir hans augum bæði húð hennar, hold og blóð ásamt saurindum hennar; 6. Þá skal presturinn taka Sedrustré, ýsóp og purpura, og kasta á bálið þar sem kvígan brennur. 7. Svo skal presturinn þvo klæði sín, lauga líkama sinn í vatni og fara svo inní herbúðirnar; er hann óhreinn til kvølds. 8. Sømuleiðis skal sá sem brenndi hana þvo klæði sín í vatni, og lauga líkama sinn; hann er óhreinn til kvølds. 9. Svo skal maður, sem er hreinn, safna saman øskunni af kvígunni og láta hana á hreinan stað fyrir utan herbúðirnar, að hún sé geymd handa søfnuði Israels barna til hreinsunar vatnsins; þetta er syndafórn. 10. En sá sem safnaði øskunni af kvígunni skal þvo klæði sín og vera óhreinn til kvølds. Þetta skal vera æfinleg skikkan fyrir Israels børn og þann útlenda sem dvelur meðal þeirra. 11. Sá sem snertir lík dauðs manns, hann skal vera óhreinn í 7 daga; 12. á 3ja og 7da degi skal hann hreinsa sig með hreinsunar vatninu og mun hann hreinn verða, en ef hann ekki hreinsar sig á 3ja og 7da degi, mun hann ekki hreinn verða. 13. Hvør sem snertir lík nokkurs manns og ekki hreinsar sig, hann saurgar bústað Drottins og skal afmáður verða úr tølu Israels barna; af því hreinsunarvatninu ekki var støkkt á hann, er hann óhreinn. 14. Þetta skal vera løg þegar maður deyr í tjaldi: hvør sem inní tjaldið geingur og hvør sem í tjaldinu er skal vera óhreinn í 7 daga, 15. og sérhvørt opið ílát yfir hvørju ekki er lok né bundið yfir skal vera óhreint. 16. Hvør sem úti á víða vángi snertir nokkurn mann sem fyrir sverði er fallinn, eða eitthvørt lík eða manns bein eða grøf, hann skal vera óhreinn í 7 daga. 17. En handa þeim sem óhreinn er skal hreinn maður taka nokkuð af øskunni af þeirri uppbrenndu syndafórn, láta í kèr og hella þar yfir rennandi vatni; 18. Svo skal hreinn

V. 30. Þ. e. hitt sem eptir er, er þá ekki heilagra enn hvað annað korn eða vín.

madur taka ýsóp, dýfa í vatnid og støkkva á tjaldid og øll ílátin og þá menn sem þar voru, og líka á þann sem snert hafdi manns bein, eda veigin eda daudan mann eda grøf; 19. á sá hreini ad støkkva á þann óhreina á 3ja og 7da degi, og hreinsa hann alveg á 7da degi, skal hann þá þvo klædi sín og lauga sig í vatni, verdur hann þá hreinn um kvøldid. 20. En sá sem verdur óhreinn og ekki vill hreinsa sig, hans nafn skal afmád verda úr søfnudinum, því hann hefur saurgad helgidóm Drottins; hreinsunar-vatninu hefir ekki verid støkkt yfir hann, svo hann er óhreinn. 21. Þetta skal vera æfinleg skikkan hjá þeim; sá sem støkkvir hreinsunarvatninu skal þvo klædi sín, sá sem snertir hreinsunarvatnid skal vera óhreinn til kvølds; 22. allt sem sá óhreini snertir verdur óhreint og hvør madur sem snertir hann, verdur óhreinn til kvølds.

## 20. Kapituli.

María deyr. Vatn af hellu. Edomitar leyfa ei fólkinu yfirfor. Aron deyr.

1. Og allur søfnudur Israels barna kom í eydimørkina Sín á 1ta mánudinum, og lýdurinn settist um kyrrt í Kades, þar dó María og þar var hún grafin. 2. Sem nú søfnudinn vantadi vatn þyrptist hann saman í móti Móses og Aron; 3. og þeir þráttudu vid Móses og søgdu: Gud gæfi ad vér hefdum dáid þegar brædur vorir dóu í augsýn Drottins! 4. Því leiddud þid søfnud Drottins í þessa eydimørku til ad deya þar ásamt fénadi vorum; 5. hvørsvegna leiddud þid oss af Egyptalandi híngad á þennann leida stad hvar hvørgi verdur sád, engin fíkjutré vaxa, engin vínvidur, engin kjarnepli, hvar jafnvel ekki er vatn til ad drekka. 6. En Móses og Aron geingu burt úr augsýn safnadarins til dyra samkundutjaldbúdarinnar, hér féllu þeir framm á sínar ásjónur og dýrd Drottins birtist þeim. 7. Þá taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 8. tak staf þinn, kalla søfnudinn saman, bædi þú og Aron bródir þinn, og talid til hellunnar í þeirra áheyrn og hún mun vatn veita og þú skalt útleida handa þeim vatn af hellunni og géfa bædi lýdnum og fénadi hans ad drekka. 9. Þá tók Móses stafinn úr augsýn Drottins eins og hann hafdi bodid honum; 10. og Móses og Aron kølludu lýdinn saman til hellunnar og Móses mælti: heyrid, þér þverbrotnu menn! munum vér géta útleidt handa ydur vatn af hellu þessari? 11. Og Móses upplypti hendi sinni og laust helluna tvisvar med staf sínum, streymdi þadan þá vatn mikid svo ad lýdurinn drakk og allur hans fénadur. 12. Þá sagdi Drottinn vid Móses og Aron: søkum þess ad þid treystid mér ekki svo, ad þér kunna gjørdud Israels børnum mína dýrd, þá skulud þid ekki innleida þennan lýd í þad land, sem eg hefi þeim géfid. 13. Þetta eru Meribas-vøtn, þar sem Israels børn þráttudu vid Drottinn og hann opinberadi sína dýrd medal þeirra.

14. Eptir þetta gjørdi Móses frá Kades bod kóngi Edomitanna og lét segja honum: svo segja brædur þínir, Israelítarnir, þú þekkir alla þá mædu sem oss hefir hitt. 15. Forfedur vorir fóru nidur til Egyptalands, og vér bjuggum þar leingi, og Egyptskir fóru illa med oss og forfedur vora, 16. en vér ákølludum Drottinn og hann heyrdi vora raust, sendi oss sinn Eingil og leiddi oss af Egyptalandi, og sjá! nú er-

---

V. 1. Nl. á 40ta árinu eptir ad þeir fóru af Egyptalandi, sjá 33, 36—38. V. 8. Líklega sama sem um er talad í 2 Mós. b. 17, 5. V. 9. Þ. e. úr helgum stad. V. 12. Sjá v. 10. hvør ord lýsa því ad treysta mest á mátt sinn, og gleymdu því ad géta þess ad þad var Gud sem í þeim var máttugur. V. 13. Þ. e. Þráttunar-votn. V. 14. Því forfadir Edomita var Edom ødru nafni Esaú bródir Jakobs forfødurs Gydinga.

um vér í Kades, hvør borg ad liggur ytst á þínum landamerkjum; 17. leif oss ad fara um land þitt, vér skulum hvørki fara yfir akra né víngarda, ekki drekka vatn úr nokkrum brunni, þjódgøtuna skulum vér þræda, og víkja hvørki til hægri né vinstri handar, þartil vér erum komnir útúr landi þínu. 18. En Edomitinn svaradi honum: þú mátt ekki fara um mitt land, ella mun eg fara ímóti þér med sverdi. 19. Þá søgdu Israels børn vid hann: vér viljum þræda alfara veginn, og ef vér drekkum af þínu vatni, eg og fénadur minn, vil eg borga þad; um þad eina bid eg ad eg fótgángandi megi fara um land þitt. 20. En Edomitinn neitadi um þad og gékk í móti honum med miklu lidi og øflugum her. 21. Þannig skoradist Edomitinn undan ad leifa Israel ad fara ígégnum land sitt, og Israels børn snéru af leid frá honum.

22. Israels børn løgdu þá upp frá Kades og allur lýdurinn kom til fjallsins Hór. 23. Á því fjalli, hjá landamerkjum Edomíta, taladi Drottinn vid Móses og Aron og sagdi: 24. Aron mun safnast til fedra sinna, því hann skal ekki koma í þad land sem eg hefi géfid Israels børnum, af því þér ekki hlýddud bodum mínum hjá Meriba vøtnum; 25. tak Aron og Eleasar son hans og leid þá uppá fjallid Hór, 26. fær Aron úr klædum sínum og lát Eleasar son hans fara í þau, Aron skal þar safnast til fedra sinna og deya. 27. Og Móses gjørdi eins og Drottinn hafdi bodid honum, geingu þeir uppá fjallid Hór ad øllum lýdnum ásjáandi; 28. Móses færdi þá Aron úr klædum hans og lét Eleasar son hans fara í þau, andadist Aron þar á fjallstindinum, en Móses og Eleasar geingu nidur af fjallinu. 29. Þegar allur lýdurinn sá ad Aron var andadur syrgdu allar Israels kynkvíslir hann í 40 daga.

V. 2. Þ. e. gjørsamlega eydileggja. V. 5. Nl. Manna.

## 21. Kapituli.

Kóngurinn í Arad er sigradur. Høggormabit. Gydíngar læknast med því ad líta á eyrorminn. Gydíngar halda áfram ferd sinni. Síhon og Og eru sigradir.

1. Þegar Kóngur Kananítanna í Arad, sem bjó í sudurhluta Kanaanslands heyrdi ad Israel var á leidinni til Atarim, rédist hann á þá og tók nokkra af þeim til fánga. 2. Þá gjørdi Israel Drottni heit og sagdi: ef þú øldúngis ofurgéfur þennan lýd á mitt vald, skal eg bannfæra borgir þeirra. 3. Og Drottinn heyrdi raust Israels barna, ofurgaf þeim Kananítana og þeir bannfærdu þá og borgir þeirra, og kølludu nafn þess stadar Horma.

4. Frá fjallinu Hór løgdu þeir af stad veg þann sem liggur til rauda hafsins, til ad fara í kríngum land Edomíta, en lýdnum féllst hugur, á leidinni, 5. og þeir møgludu í móti Gudi og móti Móses og søgdu: hvar fyrir leiddud þid oss af Egyptalandi til ad deya hér á eydimørku, því hér er hvørki braud né vatn og oss er farid ad leidast þetta léttmeti. 6. Þá sendi Drottinn eitrada høggorma medal lýdsins, sem bitu þá, svoo ad margir dóu af Israel. 7. Þá gékk lýdurinn til Móses og sagdi: vér høfum syndgad, því vér høfum þráttad gégn Drottni og gégn þér, bid Drottinn ad hann taki þessa høggorma frá oss. Og Móses bad fyrir lýdinn. 8. En Drottinn sagdi vid Móses: smída þér eyrorm og set hann á staung, og þad skal ské ad hvør sem bitinn er og lítur á hann, skal lífi halda. 9. Og Móses tilbjó eyrorm og setti á staung, og þad rættist, ad ef høggormurinn beit einhvørn og hann leit til eyrormsins, þá héldt hann lífi.

10. Eptir þetta løgdu Israels børn af stad, og løgdust í Obot. 11. Þegar þeir løgdu af stad frá Obot løgdust þeir í hlídum fjalls-

ins Abarim í eydimørkinni, sem er rétt fyrir austan land Móabítanna. 12. Padan fóru þeir og løgdust í dalnum Sared. 13. Pegar þeir fóru hédan løgdust þeir í eydimørkinni hinumeigin vid Arnon, sem kémur frá landamerkjum Amorítanna, því ad Arnon skilur lønd Móabítana og Amorítanna. 14. Pess vegna er í bókinni um bardaga Drottins minnst á Vaheb í Sufa og Arnons læki, 15. og farveg lækjanna sem renna þángad sem Ar liggur og snertir lønd Móabítanna. 16. Padan sáu þeir til Beer, það er sá brunnur hjá hvørjum Drottinn sagdi vid Móses: samansafna lýdnum eg vil géfa þeim vatn! 17. Pá saung Ísrael þennan saung: lypt þér upp, brunnur! sýngid um hann! 18. høfdíngjar grófu hann, þeir yppurstu lýdsins bjuggu hann til med støfum sínum ad bodi løggjafarans. Frá þessari eydimørku fóru þeir til Matana; 19. frá Matana, til Nahaliel, frá Nahaliel til Bamot, 20. frá Bamot í dalinn sem liggur í landi Móabíta vid rætur fjallsins Pisga sem mænir yfir eydimørkina.

21. Hédan sendi Ísrael sendiboda til Síhons Amoríta Kóngs, og lét segja honum: 22. leif mér ad fara um land þitt, vér skulum hvørki fara yfir akra né víngarda, ekki drekka vatn úr brunnum; þjódgøtuna skulum vér þræda þar til vér erum komnir útfyrir þín landamerki. 23. En Síhon leifdi Ísrael ekki ad fara um lønd sín, en safnadi ad sér øllum sínum lýd, og fór í móti Ísrael í eydimørkina og komst til Jasa, þar bardist hann vid þá. 24. En Ísraelítar slóu hann med sverdi, tóku undir sig land hans frá Arnon til Jabok allt ad Ammonítunum, því landamerki Ammonítanna vóru ekki audunnin. 25. Og Ísrael tók undir sig allar þessar borgir og bjó í øllum borgum Amorítanna, í Hesbon og øllum nærliggjandi þorpum. 26. Því Hesbon var borg Síhons Amoríta Kóngs, hafdi hann átt stríd vid Móabítanna fyrri Kóng og tekid frá honum allt hans land allt ad Arnon. 27. Pess vegna sagdi skáldid: komid til Hesbon! Síhons borg skal uppbyggjast og gjørast rambyggileg! 28. Því eldur mun útgánga frá Hesbon og logi frá Síhons borg og eyda Ar Móabítanna sem búa á hædunum hjá Arnon! 29. Illa ertú farinn Móab, það er úti um þig, Camos lýdur! hann leifdi ad synir sínir væru á flótta reknir, og dætur sínar herteknar til Síhons Amoríta Kóngs! 30. Ljós þeirra er slokknad frá Hesbon til Dibon, vér eyddum landid allt ad Nofa, allt til Mediba! 31. Og Ísrael bjó í landi Amorítanna, 32. en Móses sendi njósnarmenn til Jaeser; og þeir unnu þorpin þar í kríng og ráku burt Amorítana sem þar bjuggu. 33. Eptir þetta snéru þeir vid og héldu veg þann sem liggur til Basan, en Og Kóngur í Basan gékk út í móti þeim og allur hann lýdur til ad berjast hjá Edrei. 34. Pá sagdi Drottinn vid Móses: óttast hann ekki, því eg hefi géfid hann, allan hans lýd og land á þitt vald, og þú skalt gjøra vid hann það sama sem þú gjørdir vid Síhon Amoríta Kóng, er bjó í Hesbon! 35. Peir løgdu hann þá ad velli, syni hans og allan hans lýd, svo ekki var einn eptir, og løgdu land hans undir sig.

## 22. Kapítuli.

*Balak sendir tvisvar eptir Bileam. Asnan talar.*

1. Eptir þetta héldu Ísraels børn áframm og settu herbúdir sínar á Móabítanna hrjóstrugu vøllum hinumeigin Jórdanar, gégnt Jeríkó; 2. Og sem Balak sonur Sippors fékk ad vita allt sem Ísrael hafdi gjørt Móabítunum, 3. þá óttudust Móabítarnir mikillega þennan lýd, því hann var fjølmennur, og þeim

V. 14. Hvada bók þetta sé er óvíst. V. 18. Þ. e. Móses. V. 29. Þ. e. Camos, skúrgod Móabíta og Amoríta, gat ei ad því gjørt.

stód stuggur af Israels børnum. 4. Þess vegna søgdu Móabítarnir vid øldúnga Midíanítanna: nú mun þessi skari uppeta allt íkríngum oss, eins og uxar uppeta grasíd á jørdunni! En Balak sonur Sippors var í þann tíma Kóngur Móabítanna; 5. og hann sendi sendimenn til Bíleams sonar Beors í Petor, sem liggur hjá Efrat í hans fødurlandi, ad þeir skyldu sækja hann, og segja svo: sjá! lýdur er útgeinginn af Egyptalandi, sem hylur allt landid, og hann hefur tekid sér bólfestu gagnvart mér. 6. Kom þar fyrir og lýs fyrir mig óbænum yfir þessum lýd, því hann er stirkvari enn eg; ské kann ad eg þá géti sigrad hann og rekid af landi burt, því eg veit ad sá er blessadur sem þú blessar og sá bølvadur sem þú lýsir óbænum yfir! 7. Øldúngar Móabitanna og Midíanitanna fóru þá af stad, høfdu med sér spásagnar launin, komu til Bíleams, og søgdu honum ord Balaks. 8. En hann sagdi vid þá: verid hér í nótt og eg skal svara ykkur eptir því sem Drottinn segir mér; og høfdíngjar Móabita vóru hjá Bíleam. 9. En Gud kom til Bíleams og sagdi: hvada menn eru þad sem eru hjá þér? 10. Bíleam svaradi: Balak sonur Sippors Kóngur Móabíta, gjørdi mér þau bod, 11. sjá! hér er lýdur kominn af Egyptalandi sem hylur allt landid, kom og lýs óbænum yfir honum fyrir mig, ské kann ad eg þá géti barist vid hann og rekid á burt. 12. En Gud sagdi vid Bíleam: far þú ekki med þeim, og lýs ekki óbænum yfir þessum lýd, því hann er blessadur! 13. Þá reis Bíleam árla úr rekkju og sagdi vid høfdíngja Balaks: farid í land ydar, því Drottinn vill ekki leifa mér ad fara med ydur. 14. Høfdíngjar Móabítanna fóru þá af stad og komu til Balaks og søgdu: Bíleam færdist undan ad fara med oss. 15. Þá sendi Balak í annad sinn fleiri og ágjætari høfdíngja enn hinir vóru; 16. og sem þeir komu til Bíleams, søgdu þeir vid hann: svo segir Balak, sonur Sippors: skorast ekki undan ad koma til mín! 17. því eg vil veita þér mikla sæmd, og allt sem þú segir mér skal eg gjøra, kom og lýs fyrir mig óbænum yfir þessum lýd! 18. En Bíleam svaradi þjónum Balaks og sagdi: jafnvel þó Balak vildi géfa mér hús sitt fullt med gull og silfur, mætti eg samt ekki gjøra ámóti bodi Drottins, míns Guds, med því ad gjøra í þessu efni mikid eda lítid, 19. en verid líka hér í nótt ad eg meigi skynja hvad Drottinn enn fremur vill vid mig tala. 20. Þá kom Gud um nóttina til Bíleams og sagdi vid hann: ef menn þessir eru komnir til ad sækja þig, þá rís upp og far med þeim, en samt skaltu gjøra þad sem eg segi þér! 21. Bíleam reis þar fyrir árla úr rekkju, sødladi øsnu sína og fór af stad med høfdíngjum Móabítanna. 22. En Gud reiddist mjøg af því ad hann vildi fara þángad, og Eingill Drottins nam stadar á veginum til ad standa fyrir honum; en hann reid øsnu sinni og hafdi tvo þjóna med sér. 23. Og sem asnan sá Eingil Drottins standa í gøtunni med brugdnu sverdi í hendi sér, snéri hún útaf veginum og inn á akurlendid, en Bíleam sló í hana svo hún skyldi fara veginn. 24. Þá stód Eingill Drottins á stig einum sem var á milli tveggja víngarda og var grjótgardur á bádar hlidar. 25. En sem asnan sá Eingil Drottins, þreyngdi hún sér upp ad gardinum og vard fótur Bíleams ámilli, sló hann þá í hana aptur. 26. Þá gékk Eingill Drottins enn aptur framm hjá og nam stadar á einstigi, hvar ekki var møgulegt ad víkja til hægri eda vinstri. 27. Sem nú asnan sá Eingil Drottins, lagdist hún undir Bíleam, þá reiddist Bíleam og sló í hana med staf sínum. 28. Nú upplauk Drottinn øsnunnar munni og hún sagdi vid Bíleam: hvad hefi

eg gjørt þér, ad þú nú hefir sleigid mig þris-
var? 29. En Bíleam sagdi: af því ad þú
hefir skapraunad mér! væri svo vel ad eg
nú hefdi sverd í hendi mér skyldi eg strax drepa
þig! 30. Þá sagdi asnan vid Bíleam: er eg
ekki þín asna, sem þú hefur ridid þína tíd allt
til þessa dags, hefi eg nokkurn tíma verid vøn
ad gjøra þér þetta? en hann svaradi: nei!
31. Þá upplauk Drottinn augum Bíleams,
svo hann sá Eingil Drottins standa í gøtunni
med brugdnu sverdi í hendi sér, og hann laut
honum og féll framm á sína ásjónu. 32. En
Eingill Drottins sagdi vid hann: hvar fyrir
hefir þú nú sleigid øsnu þína þrisvar: sjá! eg
er útgeinginn til ad standa fyrir þér, því eg
veit ad þessi ferd er þér skadvænleg; 33. asn-
an sá mig og vék þrisvar úr veigi fyrir mér,
en hefdi hún ekki vikid fyrir mér, mundi eg
jafnvel hafa sleigid þig í hel, en látid øsnuna
lifa. 34. Þá sagdi Bíleam vid Eingil Drott-
ins: eg hefi misbrotid, því eg vissi ekki ad þú
stódst fyrir mér á veginum; en ef þér mislík-
ar ferd mín, vil eg strax snúa aptur! 35. En
Eingill Drottins svaradi honum: far þú med
mønnum þessum, en ekki máttu tala annad enn
þad, sem eg mun segja þér! og Bíleam fór
med høfdíngjum Balaks. 36. Þegar Balak
heyrdi ad Bíleam kjæmi, fór hann út í móti
honum til þeirrar borgar Móabíta, sem liggur
nálægt fljótinu Arnon, ytst í landi þeirra, 37.
og sagdi vid Bíleam: sendi eg ekki sendiboda
til þín og lét kalla á þig? því komstú þá ekki
til mín? heldurdu máské ad eg ekki géti veitt
þér sæmd? 38. Bíleam svaradi: sjá! nú er eg
kominn til þín, en mun eg þá géta talad nokk-
ud? þau ord sem Gud leggur mér í munn
mun eg mæla. 39. Bíleam fór þá med Ba-
lak og þeir komu til Koriat-Kusot; 40. hér
fórnfærdi Balak nautum og saudum og sendi
eptir Bíleam og høfdíngjum þeim sem med
honum voru; 41. Um morguninn tók Balak
Bíleam med sér og leiddi hann til Baal hæda
hvadan hann sá ytsta fylkíngarbrodd Gydínganna.

## 23. Kapítuli.

*Bíleam blessar móti Balaks vilja Israel.*

1. Þá mælti Bíleam vid Balak: tilbú
mér hér 7 ølturu og fá mér híngad 7 uxa og
7 hrúta. 2. Og Balak gjørdi eins og Bíleam
sagdi: fórnfærdi þá Balak og Bíleam sínum
uxa og hrút á hvørju altari, 3. og Bíleam
sagdi vid Balak: stattú hjá brennifórn þinni,
en eg vil gánga í burt, ef ské kann ad Drott-
inn mæti mér; en hvad hann opinberar mér
skal eg kunngjøra þér; fór hann þá uppá hæd
nokkra. 4. Hér mætti Gud Bíleam, og hann
sagdi vid hann: eg hefi tilbúid 7 ølturu og
fórnfært uxa og hrút á hvørju altari fyrir sig.
5. Nú lagdi Drottinn Bíleam ord í munn og
sagdi: far til Balaks aptur og mæl þannig:
6. Og hann snéri aptur til hans, og sjá! hann
stód hjá brennifórn sinni ásamt øllum høfdíng-
jum Móabíta, 7. og hann hóf sína mirku rædu
og sagdi: frá Mesópótamíu kalladi mig Bal-
ak, Kóngur Móabíta, frá fjøllunum í austri!
„kom þú, og lýs fyrir mig óbænum yfir Jakob,
kom og formæl Israel!". 8. Hvørnig má eg
óska ílls þeim sem Gud ei óskar ílls, formæla
þeim sem Gud ei formælir? 9. Af fjallstind-
inum sje eg hann, af hædunum skoda eg hann!
sjá! þessi lýdur býr sér, reiknast ekki medal
heidíngja! 10. hvør má telja mergd Jakobs,
sem er sem dupt, nefna tølu jafnvel ekki fjórda
parts af Israel! Mín sála deyi dauda hinna

V. 38. Nl. ad þinni vild. V. 41. Þ. e. Hædir hvar hof var sem Baal var helgad. V. 5. Þ. e. Eins og eg hefi bodid þér. V. 7. Þessi voru bodin sem hann fékk. V. 10. Þ. e. Gydínga. Meiníngin er: eg vildi ad daudinn hitti mig í eins lukkulegu ástandi og Gydíngar munu verda þegar daudinn vitjar þeirra.

réttlátu, mitt hid sídasta verdi sem þeirra! 11.
Þá sagdi Balak vid Bíleam: hvad gjørir þú
mér? eg lét kalla þig til ad óska ílls óvinum
mínum, og sjá! þú blessar þá! 12. En hann
svaradi: skal eg ekki gjæta þess ad tala þad
sem Drottinn leggur mér í munn? 13. Þá
mælti Balak: kom med mér á annan stad,
hvadan þú mátt sjá þá, samt muntú ekki sjá
nema ytsta fylkingarbrodd þeirra, alla muntú
ekki sjá þá, og óska þeim þar ílls fyrir mig!
14. Þá tók hann hann med sér uppá njósnara
vøllinn, á tind fjallsins Písga, byggdi þar 7
ølturu og fórnfærdi uxa og hrút á hvørju altari
fyrir sig, 15. sagdi Bíleam þá vid Balak:
stattú hér hjá brennifórn þinni, en eg vil hitta
hann þarna! 16. Og Drottinn hitti Bíleam,
lagdi honum ord í munn og sagdi: far þú apt-
ur til Balaks og mæl svo. 17. Hann fór þá
aptur til hans, og sjá! hann stód hjá brenni-
fórn sinni og høfdingjar Móabíta hjá honum.
Balak sagdi vid hann: hvad sagdi Drottinn?
18. Þá hóf hann sína mirku rædu og sagdi:
rís þú upp, Balak, og hlýd á! ljá mér eyru
þín, Sippors sonur! 19. Gud er ekki eins og
madurinn ad hann ljúgi, né eins og mannsins
barn ad hann sjái sig um hønd! skyldi hann
segja nokkud og gjøra þad ekki, tala nokkud og
halda þad ekki? 20. Sjá! køllun til ad blessa
hefi eg móti tekid! hann hefur þá blessad og
eg gét ekki riftad því, 21. hann lítur ei á af-
brot Jakobs, gjætir eigi misgjørda Israels! a)
Drottinn þeirra Gud er med þeim, fagnadar-
óp Kóngsins er medal þeirra b). 22. Gud leiddi
þá af Egyptalandi, flýtir (fljótfærni) hans er sem
villiuxans, 23. fjølkíngi dugar ekkért mót Ja-
kob, spádómar ekkért mót Israel! brádum mun
þess gétid verda um Jakob og Israel hvad
Gud hafi gjørt; 24. Sjá! lýdurinn mun rísa
upp sem ljónsinna, hreykja sér sem ljón, ekki
mun hann leggjast fyrr fyrir enn hann hefir
uppetid herfángid, drukkid blód enna føllnu.
25. Þá sagdi Balak vid Bíleam: þú skalt
hvørki lýsa yfir þeim blessan né bølvan! 26.
Bíleam svaradi: hefi eg ekki sagt þér, allt þad,
sem Drottinn segir mér, mun eg gjøra! 27.
Þá mælti Balak: kom, eg vil leida þig á ann-
ann stad, ef ské kann ad Gudi þóknist ad þú
þar lýsir óbænum yfir þeim fyrir mig. 28.
Tók Balak þá Bíleam med sér efst uppá fjallid
Peór, sem gnæfir yfir eydimørkina, 29. og
Bíleam sagdi vid Balak: tilbú mér hér 7 ølt-
uru og útvega mér hér 7 uxa og 7 hrúta;
30. en Balak gjørdi eins og Bíleam sagdi,
og fórnfærdi einum uxa og einum hrút á
hvørju altari.

## 24. Kapítuli.

Bíleam fyrirsegir gjæfu Gydínga og ógjæfu nærligg-
jandi þjóda.

1. Þegar Bíleam sá ad Drottinn vildi ad
hann blessadi Israel, gékk hann ekki burtu eins
og ádur til ad leita fyrirburda, en snéri strax
ásjónu sinni til eydimerkurinnar; 2. og sem
Bíleam hóf upp augu sín og sá Israelítana,
sem eptir kynkvíslum høfdu sett herbúdir sínar,
kom Guds Andi yfir hann, 3. og hann hóf
sína mirku rædu og sagdi: svo segir Bíleam son-
ur Beórs, svo segir madur sá, hvørs augum
er upplokid, 4. svo segir hann sem heyrir Guds
ord, sem skilur fyrirburdi ens Almáttuga, þeg-
ar hann hvílir í svefnsins ørmum og hans
augu uppljúkast! 5. hvørsu føgur eru þín tjøld
Jakob, þín híbýli Israel! 6. eins og lækir
breida þau sig út, eins og aldingardur á vatna-

V. 21. a) Þ. e. leifir ei ad þeir til grunna gángi sokum þeirra afbrota. b) Þ. e. med fagnadar ópi taka þeir móti Gudi Kóngi sínum. 22. Adr: hann er svo sterkur sem einhyrníngur. V. 24. Hvílíkann mátt hann hafi veitt þeim.
V. 3. Ml. svo hann sjer þad óordna. V. 6. Alóe: þad er nafn ilmandi trés í Indium.

bøkkum, eins og Aloe sem Drottinn gródursetti, eins og Sedrus-tré hjá vøtnum! 7. Vatn mun renna úr skjólu hans a), hans nidjar verda sem mørg vøtn, b) voldugri enn Agag c), mun hans Kóngur verda, hans Konúngs-tign mjøg dýrdleg! 8. Gud útleiddi hann af Egyptalandi, flýtir hans er sem villiuxans*); heidíngjana, óvini sína, mun hann uppsvelgja, bein þeirra brjóta, lita ørfar sínar í blódi þeirra**). 9. Eins og ljón eda ljóns-inna beigir hann sig og leggst nidur, hvør þorir ad koma honum á fætur aptur? blessadur sé sá sem blessar þig, bølvadur sá sem þér bølvar! 10. Þá reiddist Balak mjøg Bíleami, sló høndum saman og sagdi vid hann: eg kalladi þig til þess þú óskadir ílls óvinum mínum, og sjá! þú hefir nú þrisvar blessad þá! 11. Far þú þarfyrir í skyndíngu heim til þín, eg hafdi ásett mér ad veita þér mikla sæmd! en sjá! Drottinn hefir firrt þig þeim heidri! 12. þá sagdi Bíleam vid Balak: taladi eg ekki vid sendiboda þá sem þú sendir til mín þessum ordum? 13. Þótt Balak vildi géfa mér hús sitt fullt med gull og silfur, mætti eg ekki brjóta bod Drottins med því ad gjøra gott eda íllt eptir eigin hugþótta; hvad helst Drottinn segir mér mun eg mæla! 14. Og sjá! nú fer eg til míns lýds, og vil segja þér fyrir hvad þessi lýdur muni gjøra þínum lýd á komandi tímunum. 15. Hann hóf þá sína mirku rædu og sagdi: svo segir Bíleam sonur Beórs, svo segir madur sá hvørs augum er upplokid, 16. svo segir sá sem heyrir ord Guds, sem veit ætlan ens Hæsta, sem skilur fyrirburdi ens Almáttuga þegar hann hvílir í svefnsins ørmum eg hans augu uppljúkast; 17. eg sje hann ekki samt enn þá, eg horfi á hann, ekki samt í nánd; stjarna upprennur af Jakob, veldissproti rís hjá Ísrael, hann mun skékja héröd Móabítanna, ad velli leggja þá sem óeyrd gjøra. 18. Edom skal vera hans eign, Seir a) eign sinna b) óvina og Ísrael mun sýna hreisti sína! 19. Af Jakob mun sá koma sem drottnar og ad eingu gjørir þad sem eptir er af borgunum. 20. En sem hann leit Amalekítana, hóf hann sína mirku rædu og sagdi: ágjætastur af heidíngjum er Amalek, en ad lokunum mun hann med øllu eydilagdur verda. 21. Sem hann leit Kenítana, hóf hann einnig sína mirku rædu og sagdi: rambyggilegur er bústadur þinn, í klettaskorum hefur þú tilbúid þér hreidur, 22. en samt mun Kain útrekinn verda; hvørsu leingi? Assur mun flytja þig burt hertekinn. 23. Og hann hóf aptur sína mirku rædu og sagdi: ó! hvør mun fá lífi haldid nær Gud lætur þetta ské? 24. Frá Kittim munu skip koma og leggja undir sig Assur, leggja undir sig Eber, einnig hann mun gjørsamlega eydilagdur verda! 25. Nú stód Bíleam upp, fór burt og kom aptur á sinn stad. Balak fór einnig sína leid.

## 25. Kapítuli.

Afgudadýrkun Ísraels. Pineasar vandlætíng, rádist ad Midianítum.

1. Ísrael dvaldi í Sittim og lýdurinn tók til ad drýgja hór med dætrum Móabíta, 2. hvørjar ad budu lýdnum til fórnar-máltída skúrgoda sínna; en hann neytti þaraf og tilbad skúrgod þeirra. 3. Þannig flæktist lýdurinn

V. 7. *a*) Þ. e. margir munu nidjar hans verda. *b*) Þ. e. margir. *c*) svo kølludust fleiri Kóngar Amalekíta, sem voru mjøg voldugir. V. 8. *) Sbr. 23, 22. **) Adr: mola í sundur pílur þeirra. V. 17. Med stjørnu og veldissprota meinast voldugur Konúngur er drottna muni yfir Gydíngum. V. 18. *a*) svo hét fjall í landi Edomíta. *b*) Þ. e. Gydínga. V. 19. Þ. e. gjørsamlega eydileggja. V. 20. Al. ad hreysti. V. 21. Al. muntu í nádum verda. V. 24. Svo kølludust eyarnar í ægeiska hafinu og strendurnar í kríngum þad. V. 1. Svo hét dalur í landi Móabíta. V. 3. Þ. e. leiddist til ad taka þátt í dýrkan Baals Peors, skúrgods Móabíta.

vid Baal=Peor og Drottinn reiddist Israel mikillega. 4. Þá sagdi Drottinn vid Móses: tak med þér alla høfdíngja lýdsins og heing þú Drottni a) þá b) upp fyrir sólarlag, c) ad reidi Drottins snúist frá Israel. 5. Og Móses sagdi vid Dómarana í Israel: hvør um sig drepi þá af sínum mønnum sem møk hafa haft vid Baal=Peor. 6. Og sjá! þá kom einn madur af Israels børnum og leiddi Midianiska kvinnu til brædra sinna í augsýn Móses og alls safnadar Israels barna, sem þá var harmþrúnginn vid dyr samkundu-tjaldbúdarinnar. 7. En er Pineas sonur Eleasars, sonar Arons prests, sá þad, stód hann upp í midjum søfnudinum, tók spjót í hønd sér, 8. gékk áeptir þeim Israelítiska manni inní innsta part tjaldsins, og lagdi þau bædi ígégn, bædi þann ísraelítiska mann, og svo konuna ígégnum lífid, og þá stilltist plága sú sem komin var yfir Israels børn. 9. En þeir sem dóu í þessari plágu vóru 24 þúsundir.

10. Þá mælti Drottinn vid Móses og sagdi: 11. Pineas sonur Eleasars, sonar Arons prests hefur bægt reidi minni frá Israels børnum med sinni vandlætíngu minna vegna medal þeirra, svo ad eg ekki í reidi minni gjørdi enda á þeim. 12. Seg þú þarfyrir: sjá! minn fridar=sáttmála géf eg honum; 13. honum og nidjum hans eptir hann géf eg sáttmála ævarandi prests=embættis, søkum þess ad hann vandlætti vegna Guds síns og fridþægdi fyrir Israels børn. 14. En sá Israelíti sem í hel var sleginn ásamt þeirri Midianiskn konu hét Simri, sonur Salu, var hann høfdíngi eins ættleggs medal Simeonitanna, 15. og sú Midianiska kona sem drepin var hét Kosbi, dóttir Surs sem var høfdíngi ættar sinnar í Midian.

16. Eptir þetta taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 17. rádist ad Midianitunum og þér munud gjøra útaf vid þá, 18. því þeir hafa komid ydur í vandrædi med brøgdum sínum, sem þeir hafa beitt vid ydur, bædi hvad Peor vidvíkur og Kosbi, dóttur eins Midianita høfdíngja, systur þeirra, sem drepinn var á degi þeim sem plágan kom yfir ydur søkum Peors.

## 26. Kapituli.

Gydíngar eru ad nýu taldir.

1. Eptir þessa plágu sagdi Drottinn vid Móses og Eleasar son Arons prests: 2. takid manntal alls safnadar Israels barna, þeirra sem tvítugir eru og þaryfir eptir ættlegg fedra þeirra, allra sem vopnfærir eru í Israel. 3. Og Móses og presturinn Eleasar tøludu vid þá í eydimørku Móabíta hjá Jórdan gégnt Jerikó og søgdu: 4. þeir sem tvítugir eru og þaryfir skulu setjast í manntalid einsog Drottinn baud Móses; Israels børn sem útgeingu af Egyptalandi, vóru þessi: 5. Rúben Israels frumgétni sonur, synir Rúbens vóru: Hanok ættfadir Hanokita, Pallu ættfadir Pallúíta. 6. Hesron ættfadir Hesronita, Karmi ættfadir Karmíta. 7. Þessar vóru ættir Rúbens, og þeir sem taldir vóru af þeim, vóru 43 þúsundir 730, 8. Einn af sonum Pallu var Eliab; 9. synir Eliabs vóru Nemuel, Datan og Abiram; Datan og Abíram, var vant ad kvedja til þínga, og vóru þeir þad sem tóku sig saman ímóti Móses og Aron í flokk Kora þegar þeir gjørdu uppreisn ímóti Drottni; 10. opnadi jørdin þá munn sinn og svelgdi þá og Kora, þegar þessi flokkur fyrirfórst, þegar eldurinn uppsvelgdi þá 250 menn, ad þeir skyldu vera ødrum til vidvørunar; 11. en børn Kora dóu samt ekki. 12. Børn Simeons eptir ætt þeirra vóru Nemuel ættfadir Nemuelitanna, Jamin ættfadir Jaminítanna, Jakin ættfadir Jakinítanna, 13. Sera ættfadir

V. 4. *a*) Af því þeir syndgudu móti honum. *b*) Ekki høfdingjana heldur þá sem gjørt høfdu sig seka í skurdgodadýrkan. *c*) Sjá 5 Mós. b. 21, 22. V. 12. Þ. e. eg lofa honum medlæti og ad hann skuli fá ad halda prests=embættinu.

Seraitanna, Saul! ættfadir Saulitanna. 14. Þessar vóru ættir Simeonitanna, 22 þúsundir og 200. 15. Børn Gads eptir ættum þeirra vóru Sifon ættfadir Sifonitanna, Haggi ættfadir Haggítanna, Suni ættfadir Sunitanna, 16. Osni ættfadir Osnítanna, Eri ættfadir Erítanna, 17. Arod ættfadir Arodítanna, Areli ættfadir Arelitanna. 18. Þessar vóru ættir Gads barna, sem taldar vóru 40 þúsund og 500. 19. Børn Júda vóru Ger og Onan, sem bádir dóu í Canaans landi; 20. hin børn Júda vóru eptir ættum þeirra: Sela ættfadir Selanitanna, Peres ættfadir Peresítanna, Sera ættfadir Seraitanna. 21. Børn Peres vóru Hesron ættfadir Hesronitanna, Hamul ættfadir Hamulítanna. 22. Þessar vóru ættir Júda sem taldar vóru 76 þúsund og 500. 23. Børn Isaskars eptir ættum þeirra vóru: Tola ættfadir Tolaitanna, Puva ættfadir Puvitanna, 24. Jasub ættfadir Jasubítanna, Simron ættfadir Simronitanna. 25. Þessar vóru ættir Isaskars sem taldar vóru, 64 þúsundir og 300. 26. Børn Sebulons vóru eptir ættum þeirra Sared ættfadir Sardítanna, Elon ættfadir Elonitanna, Jahelel ættfadir Jahelelitanna. 27. Þessar vóru Sebulons ættir, sem taldar vóru, 60 þúsund og 500. 28. Børn Jósephs eptir ættum þeirra vóru Manasse og Efraim. 29. Børn Manassis vóru: Makir ættfadir Makirítanna, en Makir gat Gilead og Gilead var ættfadir Gileaditanna. 30. Þessi vóru børn Gileads: Jesar ættfadir Jesarítanna, Helek ættfadir Helekitanna. 31. Asriel ættfadir Asrielítanna, Sekem ættfadir Sekimitanna. 32. Semida ættfadir Semidaitanna, Hefer ættfadir Hefritanna. 33. En Selofad sonur Hefers átti einga syni, heldur dætur og nøfn dætra Selofads var: Mohela, Noa, Hagla, Milka og Tirsa. 34. Þessar vóru ættir Manassis, og þeir af þeim sem vóru taldir, vóru 52 þúsundir og 700. 35. Þessi vóru børn Ephraims eptir ættum þeirra: Sútela ættfadir Sútelaitanna, Beker ættfadir Bekeritanna, Tahan ættfadir Tahanitanna. 36. Þessi vóru børn Sútelaks: Eran ættfadir Eranitanna. 37. Þessar vóru ættir Ephraims barna, sem vóru taldar, 32 þúsundir og 500. Þessi vóru børn Jóseps eptir ættum þeirra. 38. Børn Benjamíns eptir þeirra ættum vóru: Bela ættfadir Belitanna, Asbel ættfadir Asbelitanna, Ahiram ættfadir Ahiramitanna, 39. Súfam ættfadir Súfamitanna, Húfam ættfadir Húfamitanna. 40. Børn Belas vóru Ard og Naaman; þadan eru ættir Arditanna og Naamitanna. 41. Þessi vóru børn Benjamíns eptir þeirra ættum, og þeir sem settir vóru í manntalid, vóru 45 þúsundir og 600. 42. Þessi vóru Dans børn eptir ættum þeirra: Suham ættfadir Suhamitanna; þetta var ætt Dans eptir ættum þeirra; 43. þeir af øllum ættum Suhamitanna sem teknir vóru í manntalid vóru 64 þúsundir og 400. 44. Børn Asers eptir þeirra ættum vóru: Imna ættfadir Imnaitanna, Isvi ættfadir Isvitanna, Bria ættfadir Briaitanna. 45. Børn Briasar vóru: Heber ættfadir Hebritanna, Malkiel ættfadir Malkielitanna; 46. nafn dóttur Asers var Sera. 47. Þessar vóru ættir barna Asers, þeir af þeim sem upp vóru taldir vóru 53 þúsundir og 400. 48. Børn Naftalis eptir ættum þeirra vóru: Jahesiel ættfadir Jahesielitanna, Guni ættfadir Gunitanna, 49. Jeser ættfadir Jeseritanna, Sillem ættfadir Sillemitanna. 50. Þessir vóru nidjar Naftalis eptir ættum þeirra, og þeir af þeim sem vóru taldir vóru 45 þúsundir og 400. 51. Þeir af Israels børnum sem teknir vóru í manntalid vóru þarfyrir alls 601 þúsund og 730. 52. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 53. milli þessara skal landinu skipta til eignar eptir tølu þeirra. 54. Þeirri kynkvísl sem fjølmennari er skaltu géfa meira land, þeirri sem fámennari er, minna;

eptir manntali skal sérhvørjum land úthluta;
55. med hlutkésti skal landinu skipta, eptir nafni
kynkvísla fedra þeirra skulu þeir eignir fá; 56.
eptir sem hlutkéstid segir til, skal eignum skipta
milli þeirra fámennari og fjølmennari (kynkvísla).
57. Af Levítunum voru þessir settir í mann=
talid eptir ættum þeirra: Gerson ættfadir Ger=
sonítanna, Kahat ættfadir Kahatítanna, Mer=
ari ættfadir Merarítanna. 58. Þessar voru
enn fremur ættir Levítanna: ætt Levítanna,
ætt Hebronítanna, ætt Mahelítanna, ætt Músít=
anna, ætt Koraítanna; en Kahat gat Amram.
59. Kona Amrams hét Jokebed dóttir Levis,
hvørja módir hennar fæddi Leví í Egyptalandi,
en hún fæddi Amram: Aron og Móses og
systur þeirra Maríu. 60. Aron gat Nadab,
Abíhu, Eleasar, og Itamar; 61. En Nadab
og Abíhu dóu er þeir kveiktu *) annarlegan
eld frammi fyrir Drottni. 62. Þeir af þeim
sem voru taldir, voru 23 þúsundir, allt karl=
kyns, sem mánadar gamalt var og þar yfir;
þeir voru ekki taldir med Israels børnum af
því þeir ekki áttu ad fá fasteign eins og hin
ønnur Israels børn. 63. Þetta er manntalid
sem Móses og presturinn Eleasar tóku, þegar
þeir tøldu Israels børn í eydimørku Móabita,
hjá Jórdan gégnt Jeríkó, 64. og medal þess=
ara var einginn eptir ordinn af þeim sem Móses
og presturinn Aron høfdu talid, þegar þeir tøldu
Israels børn í Sínaí eydimørku. 65. Því
Drottinn hafdi sagt vid þá: þeir skulu vissu=
lega deya í eydimørkinni, og af þeim var eing=
inn eptir nema Kaleb sonur Jefúnnis og Jósúa
sonur Núns.

## 27. Kapítuli.

Selófeads dætur. Jósúa er settur til ad vera eptirmadur Mósis.

1. Og dætur Selofeads, sonar Hefers, son=
ar Gileads, sonar Makirs sonar Manassis, af
ætt Manassis sonar Jóseps, sem hétu Mahela,
Noa, Hogla, Milka og Tirsa, 2. komu og geingu
framm fyrir Móses, prestinn Eleasar, høfdíng=
jana og allan lýdinn vid inngánginn í sam=
kundu=tjaldbúdina og søgdu: 3. fadir vor dó í
eydimørkinni og var hann þó ekki í flokki þeirra
sem settu sig í móti Drottni ásamt Kora, er
dó vegna syndar sinnar. En hann átti einga
syni; 4. hvørs vegna skal nú nafn fødur vors
afmást úr ætt hans, af því hann ekki átti
son? géf oss eignir medal fødurbrædra vorra!
5. Og Móses flutti mál þeirra fyrir Drottinn.
6. Þá mælti Drottinn vid Móses og sagdi:
7. dætur Selofeads tøludu sennilega; géf þeim
fasteign medal fødurbrædra sinna er ad erfd=
um gángi; fasteign fødur þeirra skaltu láta
gánga til þeirra. 8. En vid Israels børn
skaltú mæla þessum ordum: þegar madur deyr
og á ekki son, þá skulud þér láta eign hans
gánga til dóttur hans; 9. en eigi hann einga
dóttur, skulud þér láta eign hans gánga til
brædra hans, 10. en ef hann einga brædur á,
skulud þér fá fødurbrædrum hans eign hans;
11. en eigi hann einga fødurbrædur, skulud þér
fá þeim nánasta náúnga af ætt hans eign hans,
og hann skal eignast hana. Þetta skal vera
ævarandi løgmál fyrir Israels børn eins og
Drottinn baud Móses.

12. Eptir þetta sagdi Drottinn vid Móses:
gakk uppá fjallid Abarim, og lít yfir landid
sem eg hefi géfid Israels børnum; 13. og
sem þú hefur litid þad, skaltu einnig safnast
til fedra þinna eins og Aron bródir þinn, 14.
søkum þess ad þid vórud mér óhlýdnir í eydi=
mørkinni Sín, þegar lýdurinn møgladi, og
þid med vatninu áttud ad gjøra mína dýrd
kunna, þar af draga Meríbas vøtnin hjá Kades
í eydimørkinni Sín nafn sitt. 15. Og Móses

*) Þ. e. eld ekki tekinn af brennifórnar altarinu. V. 14. Þ. e. med því ad útleida vatnid af hellunni sjá 20, 12.

taladi vid Drottinn og sagdi: 16. Drottinn, Gud alls þess sem lifs anda dregur! set einn mann yfir söfnudinn, 17. sem gángi fyrir þeim út, og gángi fyrir þeim inn, sem leidi þá út og inn, svo söfnudur Drottins sé ei eins og hjörd sú er eingan hyrdir hefir. 18. Þá sagdi Drottinn vid Móses: tak Jósúa son Núns, andinn er yfir honum, og legg hendur yfir hann, 19. lát hann gánga fram fyrir prestinn Eleasar, og allan söfnudinn, og seg honum í þeirra áheyrn, hvad hann gjöra skuli; 20. fá honum nokkud af tign þinni, svo ad allur lýdur Israels barna hlýdi honum; 21. og hann skal gánga framm fyrir prestinn Eleasar, a) en hann skal leita úrskurdar hjá ljósinu b) frammi fyrir Drottni; ad hans bodi skulu þeir gánga út, og ad hans bodi skulu þeir gánga inn, bædi hann og öll Israels börn med honum og gjörvallur lýdurinn. 22. Og Móses gjördi eins og Drottinn hafdi bodid honum, hann tók Jósúa, lét hann gánga framm fyrir prestinn Eleasar og allan söfnudinn, 23. lagdi hendur sínar yfir hann, og sagdi honum hvad hann gjöra skyldi, eptir því sem Drottinn hafdi talad fyrir Mósen.

## 28. Kapituli.

Loglegar fórnir á hvíldardögum, á túnglkomu-dögum, á Páskum og Hvítasunnu.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 2. bjód Israels börnum og seg vid þau: þid verdid ad gjæta þess á þeim tiltekna tíma ad færa mér mína fórnargáfu, braud mitt, eldfórn handa mér til sæts ilms. 3. Og þú skalt segja vid þá: þetta er eldfórnin sem þid skulud færa Drottni. Tvö lítalaus ársgömul hrútlömb á hvörjum degi til daglegrar brennifórnar; 4. annad ad morgni hitt ad kvöldi, 5. þaradauki 10a part Efa af hveitimjöli til matfórnar, meingadann med 4da parti Hins af besta vidsmjöri; 6. Það er sú daglega brennifórn sem færd var á fjallinu Sínaí til sæts ilms, eldfórn handa Drottni. 7. Drikkjarfórnin sem hér til heyrir er: 4di partur Hins med hvörju lambi; í helgidóminum skal færa Drottni drikkjarfórn af óblöndudu víni. 8. Hitt lambid skal tilreida ad kvöldi med sömu mat- og drikkjar-fórn sem það um morguninn, það er eldfórn Drottni til sæts ilms. 9. En á hvíldar degi skal fórnfæra tveimur hrútlömbum, ársgömlum lítalausum og tveimur 10u pörtum Efa af hveitimjöli til mat-fórnar, meingudum vidsmjöri og samsvarandi drikkjar-fórn. 10. Þetta er brennifórnin sem færa skal á hvörjum hvíldardegi, auk þeirrar daglegu brennifórnar og samsvarandi drikkjar-fórnar. 11. Á fyrsta degi sérhvörs mánada ydar skulud þér færa Drottni brennifórn: tvo únga uxa, einn hrút og 7 ársgömul lítalaus hrútlömb, 12. og sem matfórn þrjá 10du parta Efa af hveitimjöli, vidsmjöri meingada med hvörjum uxa, og tvo 10u parta Efa hveitimjöls vidsmjöri meingada med hvörjum hrút, 13. og einn 10a part Efa hveitimjöls vidsmjöri meingadann, med hvörju lambi. Það er brennifórn til sæts ilms, eldfórn handa Drottni; 14. og drikkjarfórnin sem hér til heyrir er hálf Hin víns med hvörjum uxa, þridji partur Hínar med hvörjum hrút og 4di partur Hínar med hvörju lambi. Þetta er brennifórnin sem færast skal á sérhvörjum mánudi í árinu. 15. Þaradauki skal einn hafur tilreidast Drottni til syndafórnar auk þeirrar daglegu brennifórnar og henni samsvarandi drikkjarfórnar. 16. Í mánudinum fyrsta, á fjórtánda degi mánadarins eru páskar Drottins, 17. og á 15a degi í

V. 17. Þ. e. sem rádi fyrir þeim í fridi og stridi. V. 21. a) Nl. í öllum vandasömum efnum. b) Sjá 2 Mós. b. 28. 30. V. 17. sjá 2 Mós. b. 12, 16.

þessum mánudi er hátídin; í 7 daga skal ó-
sýrt braud eta; 18. á fyrsta degi skal vera
heilög samkoma, meigid þid þá einga stritvinnu
hafa fyrir stafni; 19. skulud þid þá færa
Drottni brennifórn sem eldfórn, tvo únga uxa,
einn hrút, 7 árs gömul hrútlömb, sem skulu
vera lítalaus, 20. matarfórnin sem hér til
heyrir er hveitimjöl vidsmjöri meingad, þrír
10u partar af Efa med hvörjum uxa, 2r 10u
partar med hvörjum hrút, 21. og einn 10i
partur med sérhvörju af þeim 7 lömbum; 22.
héradauki einn hafur til syndafórnar, til ad
fridþægja fyrir ydur. 23. Auk brennifórnar-
innar um morguninn, sem er sú daglega brenni-
fórn, skulud þér tilreida þetta. 24. Á sama
hátt skulud þér daglega þessa 7 daga fram-
reida eldfórnar fórn Drottni til sæts ilms;
auk þeirrar daglegu brennifórnar skal þetta
framreidast ásamt samsvarandi drikkjar-fórn.
25. En á 7da degi skal vera heilög samkoma
hjá ydur, meigid þér þó ekkért vid stritvinnu
fást. 26. Á frumgróda hátídinni, þegar þér
færid Drottni nýa matarfórn á hátídinni sem
er 7 vikur eptir páska, skal vera heilög sam-
koma hjá ydur, ekki meigid þér þá vid strit-
vinnu fást. 27. Sem brennifórn Drottni til
sæts ilms skulud þér þá færa tvo únga uxa,
einn hrút, 7 ársgömul hrútlömb; 28. mat-
fórnin sem þar til heyrir er hveitimjöl vidsmjöri
meingad, þrír 10u partar (Efa) med hvörjum
uxa, tveir 10u partar med hvörjum hrút, 29.
og einn 10i partur med sérhvörju af þeim 7
lömbum; 30. þaradauki einn geithafur til ad
fridþægja fyrir ydur; 31. Auk þeirrar dag-
legu brennifórnar og þeirri samsvarandi mat-
fórn skulud þér tilreida þetta, skal þad vera
gallalaust og eins sú samsvarandi drikk-
jar-fórn.

## 29. Kapítuli.

*Hátída fórnir ítrekast.*

1. Í mánudinum 7da á 1ta degi mánad-
arins skal vera heilög samkoma hjá ydur, meig-
id þér þá ekkért vid stritvinnu fást; lúdra-
hljómur skal þá heyrast medal ydar; 2. Sem
brennifórn Drottni til sæts ilms skulud þér fram-
reida: úngan uxa, hrút og 7 ársgömul lítalaus
hrútlömb, 3. sömuleidis samsvarandi matfórn, af
hveitimjöli vidsmjöri meingudu, þrjá 10u parta af
Efa med uxanum, tvo 10du parta med hrútnum
4. og einn 10a part med sérhvörju af þeim 7
lömbum; 5. þaradauki einn geithafur til synda-
fórnar, til ad fridþægja fyrir ydur; 6. hér-
adauk túnglkomu brennifórnina ásamt samsvar-
andi matfórn, og daglegu brennifórnina ásamt
samsvarandi mat- og drikkjar-fórn, á ven-
julegan hátt; skal þad vera eldfórn Drottni
til sæts ilms. 7. Á 10a degi í þessum sama
sjöunda mánudi a) skal vera hjá ydur heilög
samkoma og þér þjá ydar sálir b), meigid þid þá
ekkért vid vinnu fást, 8. skulud þér þá færa
brennifórn Drottni til sæts ilms: úngan uxa, hrút,
7 ársgömul hrútlömb, sem skulu vera lítalaus;
9. Sömuleidis samsvarandi matfórn, hveiti-
mjöl vidsmjöri meingad, þrjá 10u parta af
Efa med uxanum, tvo 10u parta med hrútn-
um, 10. og einn 10a part med sérhvörju af
þeim 7 lömbum; 11. en fremur einn geithaf-
ur til syndafórnar, fyrir utan fridþægíngar-
syndafórnina og þá daglegu brennifórn ásamt
samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 12. Á
15a degi í mánudinum sjöunda skal vera hjá
ydur heilög samkoma, meigid þér þá ekkért vid
stritvinnu fást, en halda Drottni hátíd í 7
daga. 13. Skulud þér þá færa brennifórn,
eldfórn Drottni til sæts ilms: 13 únga uxa,
2 hrúta og 14 ársgömul hrútlömb, sem eiga

---

V. 26. Þ. e. á Hvítasunnu-Hátíd. V. 1. Þessi mánudur var sá 7di í árinu, en Gydíngar byrjudu þá med honum árid. V. 7. *a)* Sjá 3 Mós. b. 16. Kap. *b)* Þ. e. fasta. V. 12. Sjá 3 Mós. b. 23, 34. ff. um laufskála-hátídina.

ad vera lítalaus; 14. Sømuleidis samsvarandi matfórn, hveitimjøl vidsmjøri meingad, þrjá 10du parta af Efa med sérhvørjum af þeim 13 uxum, tvo 10du parta med hvørjum fyrir sig af þeim 2ur hrútum, 15. og einn 10da part med sérhvørju af þeim 14 lømbum; 16. héradauki einn geithafur til syndafórnar auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 17. A ødrum degi (hátídarinnar) skulud þér framreida 12 únga uxa, 2 hrúta, og 14 ársgømul lítalaus hrútlømb, 18. sømuleidis samsvarandi matar- og drikkjar-fórn med uxunum, hrútunum og lømbunum eptir tølu þeirra, á venjulegan hátt; 19. héradauki einn geithafur til syndafórnar auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 20. A 3ja degi: 11 uxa, tvo hrúta, 14 ársgømul lítalaus hrútlømb, 21. sømuleidis samsvarandi matar- og drikkjar-fórn med uxunum, hrútunum og lømbunum eptir tølu þeirra, á venjulegan hátt; 22. héradauki geithafur til syndafórnar auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 23. A 4da degi: 10 uxa, 2 hrúta, 14 ársgømul lítalaus hrútlømb, 24. sømuleidis samsvarandi mat- og drikkjar-fórn med uxunum, hrútunum og lømbunum eptir þeirra tølu, á venjulegan hátt; 25. héradauki geithafur til syndafórnar auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi mat- og drikkjarfórn. 26. A 5ta degi: 9 uxa, 2 hrúta og 14 ársgømul lítalaus hrútlømb, 27. sømuleidis samsvarandi matar- og drikkjar-fórn med uxunum, hrútunum og lømbunum eptir þeirra tølu, á venjulegan hátt; 28. héradauki geithafur til syndafórnar, auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 29. A 6ta degi: 8 uxa, 2 hrúta og 14 ársgømul lítalaus hrútlømb, 30. sømuleidis samsvarandi matar- og drikkjar-fórn med uxunum, hrútunum og lømbunum eptir tølu þeirra, á venjulegan hátt, 31. héradauki einn geithafur til syndafórnar, auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi matar- og drikkjarfórn. 32. A 7da degi: 7 uxa, 2 hrúta, 14 ársgømul lítalaus hrútlømb, 33. sømuleidis samsvarandi matar- og drikkjar-fórn med uxunum, hrútunum og lømbunum, eptir þeirra tølu, á venjulegan hátt; 34. héradauki geithafur til syndafórnar auk þeirrar daglegu brennifórnar, ásamt samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 35. A 8da degi skal vera hjá ydur hátídleg samkoma, ekki meigid þér þá vid stritvinnu fást; 36. skulud þér þá færa brennifórn, eldfórn Drottni til sæts ilms: einn uxa, einn hrút, 7 ársgømul lítalaus hrútlømb, 37. sømuleidis samsvarandi mat- og drikkjar-fórn med uxanum, hrútnum og lømbunum, eptir þeirra tølu., á venjulegan hátt; 38. héradauki geithafur til syndafórnar, auk þeirrar daglegu brennifórnar ásamt samsvarandi matar- og drikkjar-fórn. 39. Þetta skulud þér framreida Drottni á hátídum ydar auk þeirra fórna sem þér hafid heitid eda sjálfkrafa framberid hvørt sem þad eru brennifórnir, matfórnir, drikkjarfórnir eda þakkarfórnir.

## 30. Kapítuli.

Um sekt.

1. Og Móses sagdi vid Israels børn allt sem Drottinn hafdi honum bodid: 2. og hann ávarpadi þannig ena yppurstu í sérhvørri kynkvísl af Israels børnum: þetta er þad sem Drottinn hefur bodid: 3. þegar karlmadur lofar Drottni ad hann skuli gjøra eitthvad, eda med eid skuldbindur sig til ad halda bindindi, má hann ekki bregda ord sitt, heldur gjøra þad

V. 3. Þ. e. halda sér frá einhvørju sem þó annars i sjálfu sér er leyfilegt.

allt eins og það fram gékk af hans munni. 4.
Þegar kvennmaður lofar Drottni að hún skuli
gjøra eitthvað, og í æsku sinni í føður húsum
skuldbindur sig til að halda bindindi, 5. og
faðir hennar heyrir á þegar hún heitir þessu,
og skuldbindur sig þar til, og hann þeigir þar
til, þá skal allt sem hún hét, og allt sem hún
skuldbatt sig til, støðugt standa. 6. En ef fað-
ir hennar gjørir það ógildt strax sem hann
heyrir það, þá skal allt sem hún hét og allt sem
hún skuldbatt sig til ógildt vera og Drottinn
mun fyrirgéfa henni það af því faðir hennar
gjørði það ógildt. 7. En ef hún giptist og
hefir áður lofað að gjøra eitthvað eða ófyrir-
sinju skuldbundið sig til að halda bindindi, 8.
og maður hennar heyrir það og þeigir þar til
þegar hann heyrir það, þá skal heit hennar
støðugt standa og það sem hún skuldbatt sig
til; 9. en ef maður hennar stendur á móti strax
sem hann heyrir það, gjørir hann ógildt heit
hennar og það sem hún ófyrirsinju skuldbatt sig
til, og Drottinn mun géfa henni það upp.
10. En það sem ekkja lofar eða sú sem skilin
er við mann sinn, allt sem hún skuldbindur
sig til skal støðugt standa. 11. Ef að kona í
húsi manns síns lofar að gjøra eitthvað eða
með eiði skuldbindur sig til að halda bindindi,
12. og maður hennar heyrir það og þeigir
þar til, og ekki aptrar henni, þá skal allt sem
hún hét og allt sem hún skuldbatt sig til standa
støðugt; 13. en ef maður hennar með øllu ó-
nýtti það strax sem hann heyrði það, þá skal
ekkért af því sem kom yfir hennar varir, hvørki
það sem hún hét né skuldbatt sig til, gildt vera;
maður hennar ónýtti það og Drottinn mun
uppgéfa henni það. 14. Sérhvørt heit og
sérhvørn þann eið, með hvørjum konan skuld-
bindur sig til að þjá líkama sinn, gétur mað-
ur hennar gjørt bæði gildt og ógildt; 15. ef
maður hennar øldúngis þeigir þar til dag ept-
ir dag, þá staðfestir hann allt sem hún hefir
heitið, eða allt sem hún hefir skuldbundið sig
til; hann staðfesti það með því að hann þagði
þar til þegar hann heyrði það. 16. En ef
hann nokkru eptir að hann hefir heyrt það,
með øllu vill gjøra það ógildt, skal hann sjálf-
ur líða straff þar fyrir. 17. Þessar vóru þær
reglugjørðir sem Drottinn sagði Móses að gilda
skyldu milli manns og konu, milli føður og
dóttur meðan hún er úng og í føðurhúsum.

## 31. Kapituli.

*Midianítar eru sigraðir, og herfángi þeirra skipt.*

1. Og Drottinn talaði við Móses og sagði:
2. hefn þú Israels barna á Midianítum, og
eptir það skaltú safnast til feðra þinna! 3.
Móses talaði þá við lýðinn og sagði: allir
karlmenn meðal yðar búi sig út til herferðar, skulu
þeir fara á móti Midianítum, til að hefna
Drottins á þeim. 4. Skuluð þér senda 1000
af hvørri kynkvísl fyrir sig til herferðarinnar.
5. Var þá tekið frá úr mergð Israels barna
1000 af hvørri kynkvísl, alls 12 þúsundir her-
tíaðra manna. 6. Og Móses sendi 1000 af
sérhvørri kynkvísl til herferðarinnar og Pinehas
son prestsins Eleasars; hafði hann í hendi sér
þau helgu áhøld og þá hvellu stríðs-lúðra. 7.
Og þeir fóru á móti Midianítum, eins og
Drottinn hafði boðið Mósesi, og slóu í hel allt
karlkyns; 8. líka løgðu þeir að velli Kónga
Midianíta meðal þeirra vegnu, Evi, Rekem,
Sur, Hur og Reba, þessa 5 Kónga Midian-
íta og Bíleam son Beors drápu þeir með
sverði. 9. Og Israels børn hertóku konur
Midianíta og børn þeirra, og ræntu øllum
vinnudýrum þeirra, øllum búsmala og øllu þeirra

V. 14. Þ. e. að halda føstu og bindindi. V. 16. Þ. e. straffast eins og hann sjálfur hefði gjørt heitið, en svikist um það.
V. 3. Því þeir høfðu komið Gyðingum til að falla frá Drottni sjá 25 Kap. V. 8. Sjá Jósúab: 13, 21.

gótsi; 10. en allar borgir þeirra sem þeir bjuggu í og øll vígi þeirra uppbrenndu þeir; 11. sídan rændu þeir þá føllnu øllum hertíum og tóku allt sem þeir gátu nád af mønnum og fénadi, 12. og færdu Móses, prestinum Eleasar og søfnudi Ísraels barna, fángana, ránsféd og herfángid, til herbúdanna í eydimørku Móabíta, sem liggur hjá Jórdan gégnt Jerikó. 13. En Móses, presturinn Eleasar og allir høfdíngjar safnadarins geingu í móti þeim út fyrir herbúdirnar; 14. reiddist Móses hershøfdíngjunum, bædi þeim sem settir vóru yfir hundrad og yfir þúsund, sem komu frá herferdinni; 15. og sagdi vid þá: gáfud þér øllum konunum líf? 16. Sjá! þad vóru einmidt þær sem ad rádi Bíleams komu Ísraels børnum til ad falla frá Drottni vegna Peors, hvørsvegna plágan kom yfir søfnud Drottins; 17. drepid þar fyrir nú allt karlkyns medal barnanna og allar þær konur sem samrædi hafa átt vid kallmenn! 18. en øll stúlkubørn sem ekki hafa samrædi átt vid kallmenn, meigid þér láta lifa handa ydur. 19. En sjálfir eigid þér ad liggja utan herbúdanna í 7 daga; hvør sem hefir mann vegid og hvør sem hefir snert veginn mann skal hreinsa sig af synd á 3ja og 7da degi, bædi þér og fángar ydar! 20. allan klædnad, øll áhold úr skinni, allt sem tilbúid er úr geitahári og øll tré-ílát, skulud þér hreinsa. 21. Þá sagdi presturinn Eleasar vid strídsmennina sem komu úr herferdinni: þetta er løgbodid sem Drottinn hefir géfid Móses: 22. gull, silfur, eir, járn, tin og blí, 23. allt sem eld þolir skulud þér láta gánga ígégnum eld, svo er þad hreint, einasta ad þad líka sé hreinsad med hreinsunar-vatninu. En allt sem ekki þolir eld skulud þér láta gánga ígégnum vatn; 24. þér skulud þvo klædi ydar á 7da deginum, og þá erud þér hreinir, og eptir þad meigid þér gánga inní herbúdirnar.

25. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 26. reikna þú og presturinn Eleasar og enir ypporstu fedur safnadarins saman hvad mikid herfángid er sem þér hafid nád bædi af mønnum og fénadi, 27. og skipt herfánginu í tvo parta milli þeirra sem tóku þátt í bardaganum og geingu í strídid, og milli alls safnadarins; 28. og þú skalt taka handa Drottni toll af strídsmønnunum sem geingu í strídid, eina sképnu af hvørjum 500: af mønnum, nautum, øsnum og smáfénadi; 29. af þeirra helmíngi skulud þér taka þetta, og þú skalt fá þad prestinum Eleasar sem upplyptíngar fórn handa Drottni. 30. En af helmíngi Ísraels barna skaltu taka einn af hvørjum 50, bædi af mønnum, nautum, øsnum og smáfénadi, øllum búsmala og fá Levítunum, sem gjæta þess sem gjæta þarf vid tjaldbúd Drottins. 31. Og Móses og presturinn Eleasar gjørdu einsog Drottinn hafdi bodid Móses. 32. Var herfángid, nefnilega þad sem eptir var af ránsfé því sem strídsmennirnir høfdu nád, 675 þúsundir af smáfénadi, 33. 72 þúsundir af nautum, 34. 61 þúsund af øsnum, 35. og af mønnum, þad er ad segja af konum, sem ekki høfdu samrædi átt vid kallmenn, alls 32 þúsundir. 36. þannig var þá helmíngur sá sem tilféll strídsmønnunum 337 þúsundir og 500 af smáfénadi, 37. og tollurinn handa Drottni af þessum smáfénadi 675. 38. Af nautum (feingu strídsmennirnir) 36 þúsundir, tollurinn þaraf handa Drottni 72. 39. Af øsnum 30 þúsundir og 500, fékk Drottinn þaraf 61. 40. Af mønnum 16 þúsundir, hvaraf Drottinn fékk 32 sálir: 41. Þennan toll, þessa upplyptíngarfórn Drottins fékk Móses prestinum Eleasar, eins og Drottinn hafdi bodid honum. 42. Af þeim helmíngi sem tilféll Ísraels børnum sem Móses úthlutadi þeim frá strídsmønnunum, 43. kom í hlut safnadarins, af smáfénadi 337 þúsundir og 500, 44. af nautum 36 þúsundir, 45. af øsnum

30 þúsundir og 500, 46. og af mønnum 16
þúsundir. 47. Tók Móses af helmíngi Ísraels
barna 1 af hvørjum 50, bædi af mønnum og
fénadi, og fékk Levítunum sem gjæta þess sem
gjæta þarf vid tjaldbúd Drottins, eins og Drott-
inn hafdi bodid Mósesi.

48. Nú geingu hershøfdíngjarnir fram fyrir
Móses, bædi þeir sem settir vóru yfir 1000
og yfir 100, 49. og søgdu vid hann: þjónar
þínir hafa talid strídsmenn þá, sem vér høfd-
um rád yfir, og þar vantadi ekki einn; 50.
þessvegna færum vér Drottni, sem fórnargáfu,
þad sem hvør af oss hefir fundid af gullgér-
semum, festum, armspaungum, fíngurgullum,
eirnahríngum, hálsfestum, til ad fridþægja fyr-
ir sálir vorar hjá Drottni. 51. Tók Móses
og presturinn Eleasar vid gullinu af þeim, sem
vóru allskonar kjørgripir; 52. var gullid sem
þeir færdu Drottni sem upplyptíngarfórn alls
16 þúsund og 750 siklar, var þad frá þeim sem
rédu yfir 1000 mønnum og yfir 100; 53.
því strídsmennirnir høfdu rænt hvør handa sér.
54. Tóku Móses og presturinn Eleasar móti
gulli þessu af þeim sem settir vóru yfir 1000
og yfir 100 og færdu þad í samkundutjaldbúd-
ina Ísraels børnum til endurminníngar fyrir
Drottni.

## 32. Kapituli.

*Rúbens, Gads og hálfri Manassis kynkvísl er úthlut-
ad land fyrir austan Jórdan.*

1. Børn Rúbens og Gads áttu margar og
mjøg miklar hjardir, og sem þeir sáu Jaesers
land og Gileads land, sjá! þá var þad hérad
hentugt fyrir kvikfénad. 2. Børn Rúbens og
Gads komu þessvegna og søgdu vid Móses, prest-
inn Eleasar og ena yppurstu lýdsins: 3. Ata-
rot, Dibon, Jaeser, Nimra, Hesbon, Eleali,
Sebam, Nebo og Beku, 4. þessi lønd sem Drott-
inn hefir lagt undir Ísraels børn, eru hentug
fyrir hjardir, og þínir þjónar eiga hjardir. 5.
Og sídan søgdu þeir: ef vér høfum fundid nád
fyrir þínu augliti, þá géf þínum þjónum land
þetta til eignar og leid oss ekki yfir Jórdan.
6. Þá sagdi Móses vid børn Gads og Rúbens:
eiga brædur ydar ad fara í stríd, en þér set-
jast hér ad? 7. því gjørid þér hugi Ísraels
barna fráhverfa því ad fara inní land sem Drott-
inn hefir þeim géfid? 8. Svo gjørdu og fedur
ydar þegar eg sendi þá frá Kades-Barnea til
ad skoda landid, 9. þeir komu til dalsins Eskól
og skodudu landid, en snéru svo hugum Ísraels
barna, ad þeir ekki vildu fara inni þad land, sem
Drottinn hafdi géfid þeim. 10. Þá upptendr-
adist reidi Drottins þann sama dag, svo hann
sór og sagdi: 11. Þessir menn, sem út eru
geingnir af Egyptalandi, tvítugir og þaryfir,
skulu ekki fá ad sjá þad land sem eg med eidi
hefi lofad Abraham, Ísaak og Jakob, því þeir
hafa ekki trúlega eptirfylgt mér, 12. ad frá-
teknum Kaleb Kenesíta, syni Jefunnis og Jósua
syni Núns, því þeir hafa trúlega eptirfylgt
Drottni. 13. Þessvegna reiddist Drottinn Ís-
rael mikillega og hann lét þá ráfa umkríng í
eydimørkinni í 40 ár, þartil øll sú kynslód var
útdaud sem adhafst hafdi þad sem Drottni mis-
líkadi. 14. Og sjá! nú rísid þér upp ístad fedra
ydar, þér affspreingi syndugra manna, til þess
ad gjøra Drottins grimdar reidi gégn Ísrael
ennþá meiri; 15. því ef þér fallid frá honum
mun hann ennþá leingur láta Ísrael dvelja í
eydimørkinni, og þér munud eydileggja allan
þennan lýd. 16. Þeir geingu nú til hans og
søgdu: hér viljum vér uppbyggja fjárhús handa
fénadi vorum og borgir handa børnum vorum;
17. en sjálfir viljum vér hertíadir med hrada
gánga ádundan Ísraels børnum þartil vér høf-
um innleidt þá á sinn stad; en børn vor skulu
búa í víggyrdtum borgum søkum landsins inn-

V. 53. Og þeir fórnfærdu eingu.

búa; 18. eigi viljum vér snúa heim aptur fyrr
enn sérhvør af Israels børnum hefir fengid sinn
erfdahlut, 19. því ekki viljum vér taka arf med
þeim hinumeigin Jórdanar og leingra burtu ef
vér fáum eign vora þessumeigin Jórdanar gégnt
austri. 20. Þá sagdi Móses vid þá: ef þér viljid
þetta gjøra, ef þér viljid hertía ydur til stríds
fyrir Drottni, 21. og hvør af ydur hertíadur
fara yfir Jórdan fyrir Drottni, þar til hann
hefir rekid óvini sína, frá augum sér, 22. og
landid er komid undir vald hans, þá meigid
þér snúa aptur, og vera síknir saka fyrir
Drottni og fyrir Israel, og hafa þetta land
til eignar fyrir Drottni. 23. En ef þér ekki
gjørid svo, sjá! þá hafid þér syndgad móti
Drottni, og þér skulud fá ad kénna á synd ydar,
sem mun finna ydur. 24. Byggid ydur þar
fyrir borgir handa smábørnum ydar og hús
handa fénadi ydar, og gjørid allt sem þér hafid
látid ydur um munn fara. 25. Þá mæltu børn
Gads og børn Rúbens vid Móses og søgdu:
þjónar þínir, munu gjøra eins og þú, herra
minn! býdur; 26. smábørn vor, konur vorar,
hjardir vorar og allur búsmali vor skal vera
hér í borgum Gileads; 27. en vér þjónar þín-
ir skulum allir hertíadir gánga fyrir Drottni
í strídid, eins og þú, herra minn! hefir bodid.
28. Baud þá Móses, þeirra vegna, prestin-
um Eleasar, Jósúa syni Núns og enum ypp-
urstu høfdíngum kynkvísla Israels barna, 29.
og sagdi vid þá: ef ad synir Gads og Rúbens
fara med ydur yfir Jórdan, allir útbúnir til
stríds fyrir Drottni, og þegar búid er ad legg-
ja landid undir ydur þá skulud þér géfa þeim
landid Gilead til eignar; 30. en ef þeir ekki
fara herklæddir med ydur, skulu þeir taka arf
med ydur í Kanaanslandi. 31. En synir Gads
og Rúbens svørudu og søgdu: þad sem Drott-
inn hefir talad til þjóna sinna þad viljum vér
gjøra; 32. vopnadir viljum vér fara fyrir
Drottni inní Kanaansland, en ódals-eign vor
skal vera þessumeigin Jórdanar. 33. Þess-
vegna gaf Móses sonum Gads, sonum Rúbens
og hálfri kynkvísl Manassis, sonar Jóseps, ríki
Sihons Amoríta-Kóngs og Ogs Kóngs í Ba-
san, landid allt ásamt øllum þeim borgum sem
þar vóru umhverfis, innan þess lands takmarka.
34. Uppbyggdu synir Gads Dibon, Atarot,
Aroer, 35. Atarot-Sofan, Jaeser, Jogbea,
36. Bet-Nimra og Bet-Haran, vóru þad
víggirdtar borgir, og réttir fyrir fénad. 37.
En synir Rúbens uppbygdu Hesbon, Eleale,
Kiriataim, 38. Nebo og Baal-Meon, sem
þeir gáfu ný nøfn, og Sibma; annars létu
þeir þær borgir sem þeir uppbygdu halda sín-
um gømlu nøfnum. 39. Synir Makirs, son-
ar Manassis rédust á Gilead, unnu hana og
ráku burt Amorítana sem þar voru; 40. og
Móses gaf Makir syni Manassis Gilead, og
bjó hann þar. 41. Jair sonur Manassis fór
á stad, vann þorp Amoríta og kalladi þau
Jairs þorp. 42. Noba fór líka á stad og
vann Kenat og þorpin þar í kríng og kalladi
eptir sér Noba.

## 33. Kapituli.

Áfángastadir Gydínga í eydimørkinni. Þeim er bod-
id ad útreka Kananítana og skipta landi þeirra.

1. Þessir voru áfángar Israels barna
þegar þeir útfóru af Egyptalandi, hvør sveit
fyrir sig, undir forstjórn Mósis og Arons; 2.
uppteiknadi Móses før þeirra eptir áfaungum
ad bodi Drottins, og voru þetta áfángar þeirra
eptir ad þeir løgdu á stad. 3. Frá Ramses

V. 20. Drottinn hafdi lofad Gydingum Canaanslandi, þess vegna vard hann líka ad leggja þad undir þá, líka sem sjálfs-
ur ad gánga í stríd vid þær heidnu þjódir sem þar bjuggu. V. 36. Réttirnar voru umgirdtar med múrvegg til þess
fénadinum væri óhætt fyrir óarga dýrum.

løgdu þeir upp á 15da degi þess fyrsta mánadar; daginn eptir páska løgdu Israels børn á stad sigri hrósandi ad ásjáandi øllum Egyptskum; 4. en Egyptskir jørdudu alla þá frumburdi sem Drottinn hafdi í hel sleigid medal þeirra, jafnvel á afgudum þeirra hafdi Drottinn látid straffid nidurkoma. 5. Israels børn løgdu þá á stad frá Ramses og settu herbúdir sínar í Sukkot. 6. Frá Sukkot fóru þeir og settu þá herbúdir sínar í Etam, sem liggur ytst í eydimørkinni. 7. Frá Etam løgdu þeir upp og snéru þá leid sinni til Pí-Hakkírot, sem liggur gégnt Baal-Sefon og settu herbúdir fyrir framan Migdol. 8. Svo løgdu þeir á stad frá Pí-Hakkírot og geingu midt í gégnum hafid inní eydimørkina, héldu áframm 3 dagferdir í eydimørkinni Etam og settu svo herbúdir sínar í Mara. 9. Frá Mara løgdu þeir upp og komust til Elim, í Elim vóru 12 vatnslindir og 70 pálmavidartré, hér settu þeir herbúdir sínar. 10. Frá Elim fóru þeir og settu herbúdir sínar hjá hafinu rauda. 11. Frá hafinu rauda løgdu þeir á stad og settu herbúdir í eydimørkinni Sín. 12. Frá eydimørkinni Sín løgdu þeir á stad og settu herbúdir í Dofka. 13. Frá Dofka fóru þeir og settu þá herbúdir í Alus. 14. Frá Alus fóru þeir og settu þá herbúdir i Refídim, þar hafdi lýdurinn ekki vatn ad drekka. 15. Frá Refídim fóru þeir og settu þá herbúdir í eydimørkinni Sínaí; 16. frá eydimørkinni Sínaí fóru þeir og settu herbúdir í Kibrot-Hattava. 17. Frá Kibrot-Hattava fóru þeir og settu herbúdir í Haserot. 18. Frá Haserot fóru þeir og settu herbúdir í Ritma. 19. Frá Ritma fóru þeir og settu herbúdir í Rimmon-Peres. 20. Frá Rimmon-Peres fóru þeir og settu herbúdir í Libna. 21. Frá Libna fóru þeir og settu herbúdir í Rissa. 22. Frá Rissa fóru þeir og settu herbúdir í Kehelata. 23. Frá Kehelata fóru þeir og settu herbúdir á fjallinu Safer. 24. Frá fjallinu Safer fóru þeir og settu herbúdir í Harada. 25. Frá Harada fóru þeir og settu herbúdir í Makehelot. 26. Frá Makehelot fóru þeir og settu herbúdir í Tahat. 27. Frá Tahat fóru þeir og settu herbúdir í Tara. 28. Frá Tara fóru þeir og settu herbúdir í Mitka. 29. Frá Mitka fóru þeir og settu herbúdir í Hasmona. 30. Frá Hasmona fóru þeir og settu herbúdir í Moserot. 31. Frá Moserot fóru þeir og settu herbúdir í Bne-Jaakan. 32. Frá Bne-Jaakan fóru þeir og settu herbúdir í Hor-Haggidgad. 33. Frá Hor-Haggidgad fóru þeir og settu herbúdir í Jotbata. 34. Frá Jotbata fóru þeir og settu herbúdir í Abróna. 35. Frá Abróna fóru þeir og settu herbúdir í Esíon-Geber. 36. Frá Esíon-Geber fóru þeir og settu herbúdir í eydimørkinni Sín þad er Kades. 37. Frá Kades fóru þeir og settu herbúdir hjá fjallinu Hór, vid takmørk Edomítalands. 38. Hér var þad ad presturinn Aron ad bodi Drottins gékk uppá fjallid Hór og dó þar á því 40ta ári eptir ad Israels børn fóru af Egyptalandi á 1ta degi í 5ta mánudinum, 39. og Aron var 123 ára gamall þegar hann deydi á fjallinu Hór. 40. Kóngurinn í Arad sem var Kanverskur og bjó í sudurhluta Kanaanslands fékk ad heyra ad Israels børn væru komin. 41. Frá fjallinu Hór fóru þeir og settu herbúdir í Salmona. 42. Frá Salmona fóru þeir og settu herbúdir í Fúnon. 43. Frá Fúnon fóru þeir og settu herbúdir í Obot. 44. Frá Obot fóru þeir og settu herbúdir í hlídum fjallsins Abarim á landamerkjum Móabíta. 45. Frá þessum hlídum fóru þeir og settu herbúdir í Dibon-Gad. 46. Frá Dibon-Gad fóru þeir og settu herbúdir í Almon-Diblataim. 47. Frá Almon-Diblataim fóru þeir og settu herbúdir hjá Abarim fjøllunum gégnt Nebo. 48.

Frá Abarims fjøllum fóru þeir og settu herbúdir í eydimørku Móabíta hjá Jórdan gégnt Jeríkó; 49. høfdu þeir herbúdir sínar hjá Jórdan frá Bet-Jesímo allt ad Abel-Sittim í eydimørku Móabíta.

50. Í eydimørku Móabíta hjá Jórdan gégnt Jeríkó taladi Drottinn vid Móses og sagdi: 51. tala vid Ísraels børn og seg vid þau: þegar þér farid yfrum Jórdan inní Kanaansland, 52. skulud þér reka frá ydur alla landsins innbúa, ad eingu gjøra alla þeirra átrúnadar steina, øll þeirra steyptu bílæti, brjóta nidur øll hof þeirra; 53. landid skulud þér taka undir ydur og búa þar, því eg hefi géfid ydur þad til eignar; 54. med hlutkésti skulud þér því skipta eptir ættum; þér skulud láta þá ættina sem fjølmennari er fá meira, þá sem fámennari er minna, þad sem hlutkéstid úthlutar hvørjum fyrir sig skal hann hafa, eptir kynkvíslum fedra ydar skulud þér eiga þad. 55. En ef þér ekki útrekid landsins innbúa frá ydur, þá munu þeir sem þér eptirskiljid, verda þirnir í augum ydar a) og brodbur í ydar sídum b) og þeir munu þjaka ydur í landi því sem þér munud byggja, 56. og þá mun svo fara, ad þad sem eg hafdi hugsad mér ad gjøra þeim, þad mun eg gjøra ydur.

## 34. Kapituli.

Landamerki Kanaanslands eru tilgreind. Tiltekid hvørjir landinu skuli skipta.

1. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 2. bjód þú Ísraels børnum og seg vid þau: þegar þér komid í Kanaansland, er þad þetta land, sem þid munud fá til eignar, landid Kanaan med þessum landamerkjum: 3. sudurhlid þess mun vera: frá eydimørkinni Sín med endilángri Idumeu, og landamerkid gégnt sudri þar fyrir liggja svona: ad austanverdu, frá botni dauda hafsins, 4. þadan mun því veita og fyrir sunnan Skorpíons-hædirnar, liggja svo yfir þvera eydimørkina Sín, lenda fyrir sunnan Kades-Barnea, ná til Hadsar-Adar, liggja um Asemon, 5. svo á bug til lækjar Egyptalands og enda vid hafid. 6. Í vestur mun landamerki ydar vera hafid, já landamerki ydar skal þad vera, landamerki ad vestanverdu. 7. En ad nordanverdu skal þetta vera landamerki ydar: frá hafinu mikla skulud þér taka stefnu allt ad fjallinu Hór, 8. frá fjallinu Hór skulud þér taka stefnu á Hamat, og þadan til Sedads, 9. svo til Sifron og enda vid Hasar-Enan. Þetta skal vera landamerki ydar ad nordanverdu. 10. Svo skulud þér tiltaka landamerki ydar ad austanverdu frá Hasar-Enan til Sefam, 11. frá Sefam skulu þau liggja nidureptir til Ribla fyrir austan Ain og svo leingra nidurávid þar til þau snerta austurhlidina á sjónum Genesaret. 12. Sídan skulu þau liggja nidur med Jórdan og enda vid dauda hafid. Þetta land skal ydur tilheyra eptir sem landamerki þess tilsegja allt í kríng! 13. Þetta baud Móses Ísraels børnum og sagdi: þetta er landid sem þér skulud skipta milli ydar med hlutkésti, sem Drottinn baud ad géfa þeim 9 kynkvíslum og þeirri hálfu kynkvísl. 14. Því kynkvísl Rúbens barna eptir ættlegg fedra þeirra og kynkvísl Gads eptir ættlegg fedra þeirra og hálf Manassis kynkvísl høfdu feingid sína fasteign; 15. hálf þridja kynkvísl hafdi feingid fasteign hinumeigin Jórdanar gégnt Jeríkó, ad austanverdu.

16. Og Drottinn taladi vid Móses og sagdi: 17. þessi eru nøfnin á þeim mønnum sem skulu skipta landinu milli ydar: presturinn Ele-

V. 52. Þ. e. steinar á hvørjar úthøggnar voru allskonar hjátrúarfullar galdra mindir. V. 55. a) Vera illa vid þá. b) Þ. e. gjøra ydur óskunda. V. 5. Sjá Jós: 13, 3. V. 6. Þ. e. Midjardarhafid. V. 11. Þ. e. Sudureptir.

asar, Jósúa sonur Núns; 18. skulud þid taka einn høfdíngja af hvørri kynkvísl til ad skipta landinu, 19. og eru þetta nøfn þessara manna: af Júda kynkvísl: Kaleb sonur Jefunnis; 20. af Simeons kynkvísl: Semúel sonur Ammí-huds; 21. Af Benjamíns kynkvísl: Elidad sonur Kislons; 22. af Dans kynkvísl: høfd-ínginn Bukki sonur Jaglis; 23. af børnum Jóseps, af kynkvísl Manassis: høfdínginn Haní-el sonur Efods; 24. og af Efraims kynkvísl: høfdínginn Kemuel sonur Siftans; 25. af Sebúlons kynkvísl: høfdínginn Elísafan sonur Parnaks, 26. af Issaskars kynkvísl: høfdínginn Paltíel sonur Assans; 27. af Assers kynkvísl: høfdínginn Akkíhud sonur Selomis; 28. og af Naftalis kynkvísl høfdínginn Pedahel sonur Ammíhuds: 29. þetta voru þeir sem Drott-inn skipadi ad skipta skyldu milli Ísraels barna fasteigninni í Kanaans landi.

## 35. Kapítuli.

Um stadi Levítanna og frístadina.

1. Og Drottinn taladi vid Móses á Mó-absvøllum hjá Jórdan gégnt Jerikó og mælti: 2. bjód þú Ísraels sonum, ad þeir gési Le-vítunum til íbúdar borgir af þeirra eiginlegu eignum. 3. Og borgirnar skulu vera þeim til íbúdar og landid, í kríngum þær, skal vera fyrir þeirra fénad og fyrir þeirra fjármuni og fyrir allar þeirra sképnur. 4. Og landid í kríngum borgirnar, sem þér eigid ad géfa Levít-unum, sé frá borgarveggnum þúsund álnir um máls. 5. Og mælid fyrir utan borgina, ad austanverdu vid hana, 2 þúsund álnir, og ad sunnanverdu 2 þúsund álnir, ad vestanverdu 2 þúsund álnir og ad nordanverdu 2 þúsund áln-ir, og borgin sé í midju, þad skal landid vera í kríngum borgirnar. 6. Og af borgunum sem þér skulud géfa Levítunum, (séu) 6 gridastadir, er þér skulud tiltaka, ad í þá flýi, hvør sem hefur víg unnid, og auk þeirra skulud þér géfa þeim 42 borgir; 7. allar þær borgir, sem þér skulud géfa Levítunum, eru 48, þær og landid í kríng. 8. Og hvad þær borgir á-hrærir sem þér skulud géfa af eign Ísraels sona, þá takid mikid af miklu og lítid af litlu; hvør einn skal géfa Levítunum af sínum borg-um eptir tiltølu sinnar eignar, sem hann á.

9. Og Drottinn taladi vid Móses og mælti: 10. tala þú vid Ísraels syni og seg til þeirra: þegar þér farid yfrum Jórdan inní Kanaans-land, 11. svo veljid ydur haganlegar borgir, gridastadir skulu þad ydur vera, ad þángad flýi drápsmadurinn, sem unnid hefir á manni af ógjætni. 12. Og borgirnar skulu vera ydur hæli fyrir hegnaranum (eptirmáls manninum) ad drápsmadurinn deyi ekki fyrr, enn hann hefir komid fyrir safnadarins dóm. 13. Þessar borgir, sem þér tiltakid, skulu vera 6, grida-stadir hjá ydur. 14. Þrjár borgir skulud þér tiltaka þessumeigin Jórdanar, og þrjár borg-ir skulud þér tiltaka í Kanaanslandi; gridastadir skulu þær vera; 15. fyrir Ísraels syni, fyrir þann útlenda, og fyrir þá sem hjá ydur búa skulu þessar þrjár borgir vera gridastadir, svo ad þángad flýi, hvør sem mann hefir vegid af ógjætni. 16. Hafi hann slegid hann med járni svo hann dó, svo er hann manndrápari; mann-dráparinn skal deydast. 17. Og ef hann sló hann med steini í hendi, hvar af madur gétur dá-id, svo ad hann dó, þá er hann manndrápari; manndráparinn skal deydast. 18. Eda ef hann sló hann med tré í hendi, er madur gétur dáid af, svo ad hann dó, þá er hann mann-drápari; manndráparinn skal deydast. 19. Blódhegnarinn skal deyda manndráparann; hann skal drepa hann, ef hann hittir hann. 20. Og hryndi hann honum af hatri, eda kasti hann í hann af ásetníngi, svo hann deyr, 21. eda hann slær hann af fjandskap med hendinni

svo hann deyr; þá skal sá deydast sem sló; manndrápari er hann; blódhegnarinn skal drepa manndráparann þegar hann hittir hann. 22. En hafi hann af tilviljun, en ekki fjandskap, hrundid honum, eda kastad til hans, hvørju sem hellst verkfæri, tilgángslaust; 23. eda steini, hvaraf madur gétur dáid, án þess ad sjá þad, og lét hann á hann falla, svo ad hann dó, en hann var ekki hans fjandmadur, og leitadi honum ekki tjóns, 24. svo dæmi søfnudurinn milli þess sem sló, og blódhegnarans eptir þessum løgum. 25. Og søfnudurinn frelsi drápsmanninn af hendi blódhegnarans, og flytji hann aptur í gridastadinn, hvørt hann var flúinn, og þar sé hann þángad til sá ypparsti prestur deyr, sem smurdur var med því heilaga vidsmjøri. 26. En ef manndráparinn fer út yfir landamerki síns gridastadar, 27. og blódhegnarinn finnur hann fyrir utan landamerki hans gridastadar; þó blódhegnarinn drepi hann þá, svo hefir hann einga blódskuld. 28. Því í sínum gridastad skal hann vera allt til dauda ypparsta prestsins, og eptir dauda þess ypparsta prests má manndráparinn fara aptur í land sinnar eignar.

29. Og þad sé ydur lága regla fyrir ydar eptirkomendur, í øllum ydar bústødum. 30. Þegar einhvør drepur mann, svo deydi menn manndráparann eptir framburdi tveggja vitna; en eitt vitni skal ekki vitna móti nokkrum manni til dauda. 31. Og þér skulud eingar bætur taka fyrir líf manndráparans, sem hefir unnid til þess ad deya, heldur skal hann deydast. 32. Og þér skulud eingar bætur taka fyrir flóttan í hans gridastad, svo ad hann géti farid þadan heim og búid í landinu allt til dauda prestsins. 33. Þér skulud ekki vanhelga landid, sem þér erud í; því blódid vanhelgar landid, og vid landid verdur ekki forlíkast fyrir blód, sem á þad var úthellt, nema med blódi þess, sem því úthellti. 34. Og þér skulud ekki saurga landid sem þér búid í, sem eg einnidt bý í; því eg Drottinn hefi minn bústad medal Israelssona.

## 36. Kapítuli.

Log um dætur sem taka arf.

1. Og høfudsmenn sona Gileads, sonar Makirs, sonar Manassís, af ættum Jóseps sona, geingu fram og tøludu vid Móses, og vid fyrirmennina, høfudsmenn Israels sona, 2. og mæltu: Drottinn hefir bodid vorum herra, ad géfa med hlutfalli landid til eignar Israels sonum, og vorum herra var bodid, af Drottni, ad géfa dætrum bródur vors Selafehads, hans eign. 3. Verdi þær nú konur einhvørs af sonum hinna ættkvísla Israelssona, svo geingur þeirra eign, frá eign vorrar ættkvíslar, og verdur løgd vid eign þeirrar ættkvíslar sem þær koma inní, og þad tekst af hlutdeild vorrar eignar. 4. Og þegar Israelssona fagnadar ár kémur, svo verdur þeirra eign, bætt vid eign þeirrar ættkvíslar, sem þær koma í, og þeirra eign geingur frá eign vorrar ættkvíslar.

5. Þá baud Móses Israels sonum eptir skipun Drottins, og mælti: rétt talar ættkvísl Jóseps sona. 6. Þetta er þad sem Drottinn býdur vidvíkjandi Selafehads dætrum, og segir: þær meiga verda konur þeirra sem þeim líkar, þegar þær ad eins verda konur einhvørs, af ætt þeirra fødurlegu ættkvíslar, 7. svo ad eingin eign Israels sona gángi frá einni ættkvísl til annarar, heldur skal hvør og einn af Israelssonum halda eign sinnar fødurlegu ættkvíslar. 8. Og hvør ein dóttir, sem erfir eign í ættkvíslum Israels sona, skal verda kona einhvørs af ætt sinnar fødurlegu ættkvíslar, svo ad sérhvør af Israels sonum erfi síns fødurs eign. 9. Og eingin eign gángi frá einni ættkvísl til

annarar, heldur skal hvør ein Israels sona ættkvísl vera føst vid sína eign.

10. Eins og Móses baud svo gjørdu Selafehads dætur. 11. Og þær dætur Selafehads Mahela, Tírsa, Holga, Milka og Noa, urdu sona konur fødur bródur síns; 12. Þær urdu konur (Manna) af ættum Manassis sona, Jóseps sonar, og þeirra eign vard hjá ættkvísl þeirra fødurlega kyns. 13. Þetta eru þau bodord og réttindi sem Drottinn baud Israels sonum fyrir (milligaungu) Mósis á Móabs vøllum, vid Jórdan, gagnvart Jerikó.

# DEVTERONOMIUM.

## Fimta Bók Mósis.

### 1. Kapítuli.

Uppreisn Israelsbarna i eydimorkinni og straff.

1. Þessi eru þau ord, sem Móses taladi vid allann Israel, hinumeigin vid Jórdan í eydimørkinni, á sléttlendinu út á móts vid Suph, á milli Paran og Tofel, Laban, Hliseroth og Disahab. 2. (Þad eru ellefu dagleidir frá Hóreb til Kadesbarnea, þegar farin er fjallvegurinn Seir.) 3. Á fertugasta ári, fyrsta degi þess ellefta mánadar, taladi Móses vid Israelsfólk allt þad sem Drottinn hafdi fyrir hann lagt, 4. eptir ad hann hafdi unnid á Sihon Amorita Kóngi, sem hafdi adsetur í Hesbon, og á Ogg Kónginum í Basan, sem hafdi adsetur í Astaroth *).

5. Hinumeigin vid Jórdan, í Móabítalandi, fór Móses ad útlista løgmálid þessum ordum: 6. Drottinn vor Gud taladi vid oss á Hóreb svoleidis: þér erud nógu leingi búnir ad vera á þessu fjalli, 7. snúid nú vid og farid til Amoríta fjalls, og þeirra stada sem þar liggja í grend vid bædi á sléttlendi, fjøllum, dølum, á móti sudri og vid sjó, til Kanaanslands og Libanon, allt til þeirrar miklu módu Evphrat. 8. Sjá! eg hefi gefid ydur þad land, sem fyrir ydur liggur, farid og takid þad undir ydur, hefir Drottinn svarid fedrum ydar, Abraham, Isaak og Jakob ad gefa þeim landid og nidjum þeirra.

9. Um sama leiti, sagdi eg vid ydur: eg rís ekki undir ydur einsamall, 10. því ad Drottinn ydar Gud hefur margfaldad ydur, svo þér erud nú ordnir, ad fjøldanum til, álíkir himinsins stjørnum. 11. (En Gud, Drottinn fedra ydar, gjøri ydur enn mørgum þúsundum fleiri, og blessi ydur, eins og hann hefir lofad). 12. En hvørnig á eg einn ad géta borid øll þýngsli af ydur, ánaud og þrætur. 13. Veljid vísa, skinsama og valinkunna menn af kynkvíslum ydar, og skal eg setja þá til høfdíngja yfir ydur. 14. Þá svørudud þér mér og søgdud: þad er vel tilfallid sem þú segist vilja gjøra. 15. Tók eg þá ødlíngana úr ættkvíslum ydar, skinsama menn og valinkunna, og setti þá høfdíngja yfir ydur, yfir þúsund, yfir hundrad, yfir fimtíu og yfir tíu, og til embættismanna med-

*) Sjá Kap. 3, 1.

al ydar kynkvísla. 16. Og eg lagdi þá svo fyrir dómendur ydar segjandi: gégnid brædrum ydar, og dæmid rétt á millum hvørs manns, hvert sem hann er innlendur eda útlendur; 17. hafid ekkért manngreinar álit í dómum, gégnid eins naudsyn minni sem meiriháttar manna, og hrædist ekki nokkurn mann, því dómara embættid er Guds; en ef eitthvørt málefni er ydur ofvaxid, þá skjótid því til mín, og skal eg því gégna. 18. Þannig skipadi eg ydur í þad sinni øll þau løg sem þér skyldud halda.

19. Sídan fórum vér frá Hóreb, og héldum áfram yfir alla eydimørkina — sem bædi er mikil og hrædileg, eins og þér sjálfir sjed hafid — leidina til Amoríta fjalls, eins og Drottinn vor Gud hafdi fyrir oss lagt, og nádum þannig til Kadesbarnea. 20. Þá sagdi eg vid ydur: þér erud komnir til Amoríta fjalls, sem Drottinn vor Gud vill géfa oss; 21. sjá þú! Drottinn vor Gud hefir géfid þér í hendur land þetta, farid upp og náid því, eins og Gud Drottinn fedra þinna, hefir heitid þér, vert ekki hræddur né huglaus. 22. Þá søfnudust þér allir til mín og søgdud: látum oss senda þángad nokkra menn á undan, til ad kanna landid, sem géti sagt oss aptur um hvada veg þángad verdi komist, og hvørjar borgir þar verdi í leid vorri. 23. Mér féll þetta vel í géd, svo eg valdi 12 menn af ydur, einn úr hvørri kynkvísl; 24. þessir tóku sig nú upp, geingu upp fjøllin, og komust í dalinn Eskol, og kønnudu þar land; 25. tóku þeir med sér nokkud af jardar ávoxtum, sem þeir færdu oss aptur, og báru þá fregn, ad land þad væri gott sem Drottinn vor Gud hefdi géfid oss. 26. En þér vildud ei halda þángad, og vórud óhlýdnir ordum Drottins, ydar Guds, møglud í landtjøldum ydar og søgdud: 27. af hatri til vor hefir Drottinn leidt oss burt úr Egyptalandi, svo vér kjæmustum í hendur Amorítum, og yrdum af þeim eydilagdir, hvørt skulum vér nú halda? 28. Landar vorir hafa skélst hjørtu vor, og sagt oss ad fólk þad væri stærra og voldugara enn vér, ad borgir væru þar stórar og rambygdar hátt í lopt upp, líka hefdu þeir sjed þar afkomara Enakims.

29. Þá sagdi eg vid ydur: látid ei hugfallast og hrædist þá ekki, 30. Drottinn ydar Gud mun gánga á undan ydur og berjast fyrir ydur, eins og hann gjørdi ydur ásjáandi í Egyptalandi. 31. Eins á eydimørkinni, hvar þú hefir sjed hvørnig hann bar þig, eins og fadir ber son sinn, um allan þann veg sem þér hafid yfir farid, þángad til þér komust híngad. 32. En þér vildud ekki í þessu treysta Drottni ydar Gudi, 33. sem ætíd gékk á undan ydur, til ad vísa ydur á góda tjaldstadi, á nóttunni í eldi, til ad sýna ydur veginn sem þér ættud ad halda, en á daginn í skýi.

34. En þegar Drottinn heyrdi umtølur ydar, vard hann reidur, sór og sagdi: 35. enginn af þessu vonda fólki skal fá ad sjá land þad id góda, sem eg hefi svarid ad géfa fedrum þeirra, 36. nema Kaleb son Jefunnis, honum skal audnast ad sjá þad, honum og hans børnum vil eg géfa þad land, sem hann hefir yfirfarid, af því hann hefir haldid sér stødugt vid Drottinn. 37. Og Drottinn vard einnig reidur vid mig ydar vegna og sagdi: þú skalt ekki heldur komast þángad, 38. en Jósúa, sonur Núns, sem er þénari þinn, skal komast þángad, gjørdu hann øruggann, því hann mun leida Israels fólk inn í þetta erfdaland. 39. Ydar børn, sem þér søgdud ad mundu verda fjandmønnunum ad brád, og ydar synir, sem enn þá hafa hvørki skyn á illu né gódu, munu þángad komast, þeim vil eg géfa þad til eignar. 40. En þér skulud snúa vid, og fara til eydimerkurinnar, sem liggur ad raudahafsbotnum. 41. Þá svørudud þér og søgdud: vér høfum syndgad

móti Drottni, vér viljum taka oss upp, og leggja ad óvinunum, allt eins og Drottinn vor Gud baud oss; þá þér nú herklæddust, hvør sínum vopnum, og vórud búnir til ad leggja upp á fjallid, 42. þá sagdi Drottinn vid mig: segdu þeim ad þeir leggi ekki upp til bardaga, því eg sé ekki í fylgd med þeim til ad hlífa þeim fyrir mannslagi af óvinunum. 43. Þó eg segdi ydur þetta, vildud þér samt ekki gégna, vórud óhlýdugir skipan Drottins, þrjótskudust og løgdud upp á fjallid. 44. Amorítar, sem bjuggu á fjøllunum, løgdu þá móti ydur, eltu ydur, eins og bíflugur plaga ad gjøra, og gjørdu mannfall mikid medal ydar frá Seir og allt til Harma. 45. Þegar þér vórud aptur komnir, og grétud fyrir Drottni, þá vildi Drottinn ekki heyra bænir ydar, né hlýda á ydur.

46. Þér hafid þannig dvalid í Kades lánga tíma, eins og þér vitid sjálfir.

## 2. Kapítuli.

*Israels børn vinna sigur á Ammonitum.*

1. Sídan beygdum vér vid, og héldum til eydimerkurinnar útámótsvid Raudahafsbotna, einsog Drottinn hafdi lagt fyrir mig, og fórum íkríngum fjallid Seir lánga tíma. 2. Þá sagdi Drottinn vid mig: 3. þér hafid nógu leingi reikad íkríngum fjall þetta, snúid ydur nú í nordur. 4. En fólkinu skaltú bjóda og segja: Þér skulud fara yfir landamerki brædra ydar, sem komnir eru af Esaú, og búa í Seir, þeir munu verda hræddir vid ydur, 5. en takid ydur mikin vara fyrir ad leggja til orustu vid þá, þvíad eg vil ekki géfa ydur svomikid sem eitt fet af landi þeirra, þvíad eg hefi ánafnad nidjum Esaú fjallid Seir, 6. mat og drykk skulud þér kaupa af þeim hvørutveggi fyrir peninga, 7. þvíad Gud Drottinn þinn hefir blessad allan þinn handafla, hann lét sér annt um þig á ferd þinni um eydimørk þessa hina miklu, í 40 ár hefir Drottinn Gud þinn verid med þér, svo þig skorti aungvan hlut.

8. Þá vér vórum nú komnir framhjá brædrum vorum, nidjum Esaú, sem búa í Seir, yfir flatlendid hjá Elat og Eseongobere, þá beygdum vér vid, og stefndum til Móabíta eydimerkur. 9. Þá sagdi Drottinn vid mig: þú skalt ekki áreita Móabíta, og ekki leggja til bardaga vid þá, því eg vil ekkért géfa þér af þeirra landi til eignar, því eg hefi ánafnad nidjum Lots stadinn Ar. 10. (Þeir Amim bjuggu þar fordum, þad var fólkrík og voldug þjód og stórvaxin einsog Enakim, 11. þeir eru og haldnir risakyns einsog Enakim, en Móabítar kølludu þá Emim. 12. Hóritar bjuggu fordum í Seir, en Esaú nidjar hrøktu þá í burt og eyddu þeim, en settust sjálfir ad løndum þeirra, einsog Israelítar gjøra vid þau lønd sem Drottinn géfur þeim til eignar). 13. Og Drottinn sagdi: takid ydur nú upp, og farid yfir um elfuna Sared, en vér gjørdum einsog hann skipadi.

14. En tíminn sem vér vorum frá Kadesbarnea til þess vér fórum yfirum ána Sared, vóru 38 ár, svo ad dánir vóru allir vopnfærir menn úr herlidinu, einsog Drottinn hafdi svarid, 15. hvørs hønd var svo uppámóti þeim, ad hann eyddi þeim úr herlidinu þángad til einginn var eptir. 16. Og þegar allir þessir strídsmenn medal fólksins vóru fallnir nidur í strá, 17. þá ávarpadi Drottinn mig þessum ordum: 18. þú munt í dag fara framhjá landamerkjum Móabíta hjá Ar, 19. og leid þín mun liggja nærri Ammonítum, en ekki skaltú áreita þá, né eggja til bardaga, því eg ætla ekkért ad géfa þér til eignar af landi Ammons barna, því eg hefi géfid þad nidjum Lots til eignar. 20. (Þad er og álitid ad vera risa land, skulu risar hafa búid þar í gamla daga, og kølludu Ammonitar þá Samsúmim, 21. þad er voldug

þjóð, fjølmenn og stór að vexti einsog Enakim, en Drottinn eyddi þeim fyrir Ammonitum svo þessir eignuðust landið og tóku það undir sig. 22. Sama hafði Drottinn gjørt fyrir niðja Esaú sem bjuggu í Seir, þá hann eyddi Hórítum fyrir þeim en þeir feingu aptur landið, og settust að í hinna stað, hvað svo stendur enn í dag. 23. Með líkum hætti tóku Kaptórím sig upp frá Kaptór og eyðiløgðu Avim, sem bjuggu í Haserim allt til Gasa, en tóku undir sig land þeirra).

24. Takið yður nú upp til ferðar, og farið yfir lækinn Arnon, sjá! eg hefi gefið á þitt vald Síhon, Ammorita kóng í Hesbon, og land hans allt; tak nú til að vinna landið og legg til orustu við hann, 25. skal eg láta það hefjast í dag að øllum þjóðum undir himninum standi af þér ótti og hræðsla, svo að allir sem heyri þig nefndann á nafn fái í sig hræðslu og kvíða fyrir þér.

26. Þá gjørði eg menn úr Kidmot eyðimørk á fund Síhons kóngs í Hesbon, með vingjarnlegri orðsendíng, svolátandi: 27. Eg vil fá fararleyfi yfir land þitt um rétta þjóðleið, og skal eg hvørki sveigja þar útaf til hægri né vinstri. 28. Matvæli og drykk muntu selja mér við verði, mér er nóg fái eg að gánga fæti yfir land þitt, 29. (einsog þeir veittu mér niðjar Esaú, sem búa í Seir, og Móabítar sem búa í Ar) þángað til eg kémst yfir Jórdan, í það land sem Drottinn vor Guð hefir géfið oss.

30. En Síhon Kóngurinn í Hesbon, vildi ekki vér færum yfir land sitt, því að Drottinn Guð þinn forherdti hans anda og blindaði hans hjarta, af því hann vildi géfa hann í þínar hendur einsog líka varð. 31. Þá sagði Drottinn við mig: sjá þú! eg ætla nú að géfa upp við þig Síhon og land hans, byrja því að leggja land hans undir þig.

32. Lagði þá Síhon út ámóts við oss með øllu liði sínu til að heyja orustu hjá Jahsa. 33. En Drottinn vor Guð gaf hann á vort vald, svo vér sigruðumst á honum, sonum hans og øllu liði; 34. Þá unnum vér og á sama tíma allar hans borgir, eyddum þeim ásamt øllu mannfólki, svovel konum sem børnum, 35. svo vér létum þar ekkért lifa, nema fénaðinn og herfángið úr borgunum sem vér høfðum unnið og tókum vér það undir oss. 36. Frá Aroer, sem liggur við bakkann á læknum Arnon, og frá borginni sem er í dalnum inn til Gilead, var eingi sú borg sem gjæti varist fyrir oss, allar þær gaf Drottinn vor Guð oss í hendur, 37. nema hvað þú máttir ekki koma í land Ammons barna, í héraðið umhverfis vatnið Jabok, ei heldur til borganna uppá fjallbygdinni, eða nokkurra þeirra staða sem Drottinn vor Guð hafði bannað.

## 3. Kapítuli.

Unnin Ogg Kóngur í Basan.

1. Síðan fórum vér þaðan, og héldum veginn til Basan, þá réðst Kóngurinn Ogg af Basan út á móti oss með øllu sínu liði til að heya bardaga við Edrei. 2. En Drottinn sagði við mig: Vertú óhræddur við þá, því eg hefi géfið í þínar hendur, bæði hann sjálfann, lið hans allt og land, skaltú svo fara með hann, eins og þú fórst með Síhon Amoríta Kóng sem bjó í Hesbon. 3. Svo Drottinn vor Guð gaf oss þannig í hendur einnig Ogg Kónginn í Basan og allt lið hans, svo vér drápum þar hvørt manns barn. 4. Um sama leiti sigruðum vér allar hans borgir og var sú eingin, að vér ekki næðum undan honum, en þær voru talsins 60 í héraðinu Argob, sem Ogg af Basan hafði til yfirráða; 5. Allar þessar borgir voru rambygðar með háum múrveggjum, hliðum og slagbrøndum, héraðauk var fjøldi mikill

af óumgirdtum þorpum, 6. og settum vér þá í
bann*) eins og vér höfdum ádur gjört vid Síhon
Kónginn af Hesbon, vér settum í þetta bann
allar borgirnar bædi menn, konur og børn.
7. En allan fénad og herfáng úr borgunum
drógum vér undir oss.
8. Med svo felldu móti tókum vér á þeim
tíma, af hendi beggja Amoríta Kónga, land
allt hinumeigin Jórdanar, frá læknum Arnon,
allt til fallsins Hermon. 9. Fjallid Hermon
kalla Sídonítar Sirion, en Amorítar kalla þad
Senir. 10. Allar borgir á flatlendinu allt frá
Gilead og Basan til Salka og Edrei heyrdu
undir Kóngsríki Oggs af Basan. 11. Því
Kóngurinn Ogg í Basan var sá eini sem eptir
var ordinn af risunum. Sjá þú! hans járn-
sæng er hér í Rabbat hjá Amorítum, hún er 9
álna laung, og 4 álna breid, alinin reiknud
eptir kallmanns alboga. 12. Vér løgdum
þetta land undir oss þann tíma, frá Aroer, sem
er vid lækinn Arnon, og hálft Gilead fjall med
sínum borgum, og eg gaf þad þeim Rúbenít-
um og Gadítum; 13. En þad sem eptir var
af Gilead og allt Basan, Oggs Kóngsríki,
gaf eg hálfri Manassis ættkvísl (allt héradid
Argob og allt Basan kallast risaland; 14. Jair son
Manassis nam allt héradid Argob til Gessúri
og Maakati landamerkja, og hann kalladi Bas-
an eptir sér Jairs þorp og helst þad nafn vid
enn í dag). 15. Makkir gaf eg Gilead, 16.
Rúbenítum og Gadítum gaf eg part af Gilead
til Arnon læks, eda í hann midjann, hvar
mørkin eru, og allt ad ánni Jabok, hvar merki
eru Amoríta lands, 17. sømuleidis flatlendid
og Jórdan, sem er á mørkum, frá vatninu
Kinneret til sjáfarins á sléttlendinu, sem er
salti sjórinn, nedanverdt vid fjallid Písga aust-
an í móti. 18. Um sama leiti baud eg ydur
og sagdi: Drottinn ydar Gud hefir géfid ydur
þetta land til eignar; gángid þess vegna her-
klæddir á undan brædrum ydar, Israels børn-
um, allir þér sem þar til erud færir, 19. nema kon-
ur ydar, børn og fénadur, því eg veit þér hafid
mikin fénad. Þetta skulud þér allt skilja eptir í
þeim borgum sem eg hefi géfid ydur, 20. þáng-
ad til Drottinn kémur brædrum ydar til hvíld-
ar eins og ydur, og þeir eru búnir ad ná því
landi, sem Drottinn ydar Gud mun géfa þeim
hinumegin vid Jórdan, þá skal hvør ydar meiga
snúa aptur til eigna sinna sem eg hefi hon-
um géfid. 21. Um sama leiti baud eg
Jósúa: þín augu hafa sjed allt hvad Drottinn
ydar Gud hefir gjørt þessum 2 Kóngum, sama
mun Drottinn gjøra vid øll þau Kóngsríki sem
þú átt ad koma til. 22. Verid ei hræddir vid
þá, því Drottinn ydar Gud mun strída fyrir
ydur. 23. Þá beiddi eg Drottinn og sagdi:
24. Drottinn minn Gud, þú hefir byrjad ad
sýna þínum þénara þitt veldi og þína øfluga
hønd, því hvør er sá Gud á himni eda jørdu
sem fái komist nærri þínum verkum og þínum
mætti? 25. Lofadu mér ad sjá þad góda
landid hinumeigin vid Jórdan, fjallid góda og
Libanon. 26. En Drottinn reiddist mér ydar
vegna og bænheyrdi mig ekki, en sagdi vid mig:
slepptu þessu, og tala ekki vid mig um þad
optar! 27. Stíg þú uppá tindinn á Písga
fjalli, og lypt augum þínum mót vestri, nord-
ri, sudri og austri, og lít þadan yfir landid,
því þú munt ekki komast yfir þessa Jórdan.
28. En seg þú Jósúa ad vera huggódum og
øruggum, því hann skal vera fyrir þessu

*) Í hebreskunni þýdir ordid ad helga edur ánafna. Med þessu móti helgudu Gydingar Jehóva bædi fénad, lendur og menn, sem þeir høfdu hertekid, þær lendur er þannig vóru helgadar féllu prestinum, en mennirnir vóru lif-látnir, var svo mikil helgi á þessu, ad ef einhvør skaut manni eda ødru undan, var hann sjálfur dræpur. Í strídum vid heidíngja vóru stundum heilar borgir med øllu, helgadar med þessum hætti, eda sem betur lætur í voru máli, settar í bann.

fólki, og hann skal skipta með því landinu sem þú munt sjá.

29. Dvøldum vér svo um hríð í dalnum á móts við Betpeor.

## 4. Kapítuli.

Móses brýnir fyrir þjóðinni fastheldni við einn Guð og hans boðorð.

1. Heyr þú nú, Ísrael! þá setnínga og boðorð, sem eg kénni yður, og breitið eptir þeim, svo þér meigið lifa og ná að eignast það land, sem Drottinn Guð fedra yðar, mun géfa yður; 2. Þér skuluð aungvu auka við það sem eg legg fyrir yður, og þér skuluð ei heldur þar frá draga, heldur skuluð þér kostgjæfilega varðveita boðorð Drottins yðar Guðs, þau sem eg hefi fyrir yður lagt. 3. Með yðar eigin augum hafið þér sjeð, hvørnig Drottinn fór með Baal-Peor*) því allan þann flokk, sem fylgdi Baal-Peor, upprætti Drottinn þinn Guð úr yðar samfélagi; 4. En þér sem aðhyltust Drottinn yðar Guð, lifið enn allirsaman framm á þenna dag. 5. Sjáið! eg hefi kénnt yður løg og boðorð, eptir því sem Drottinn minn Guð lagði fyrir mig, til þess þér skylduð breita eptir þeim í landinu, sem þér nú ætlið inní til að ná undir yður. 6. Haldið þau því og varðveitið! mun það koma á yður orði hjá øllum þjóðum fyrir vísdóm og skynsemi, og þegar þær heyra alla þessa setnínga, munu þeir segja: þetta er sannlega vitur þjóð og skynsøm og þar með næsta voldug, 7. því hvør er sú voldug þjóð, sem guðirnir hafi verið eins nálægir, og Drottinn vor Guð var oss alténd þegar vér kølluðum til hans, 8. og hvar er sú voldug þjóð sem hafi eins réttvísa lagasetnínga og boðorð, svo sem er allt þetta løgmál, sem eg legg í dag fram fyrir yður. 9. En varaðu þig og gjættu vandlega sálu þinnar, að ei gleymir þú þeim hlutum sem þú hefur sjeð með eigin augum, og að það ekki líði þér úr minni æfilángt; þínum børnum og barna børnum skaltú þá kunngjøra, 10. (kunngjøra) daginn þann, þegar þú stóðst frammi fyrir Drottni Guði þínum við fjallið Hóreb, og Drottinn sagði við mig: safnaðu øllu fólkinu til mín, svo eg sjálfur láti þá heyra mín boðorð, og svo þeir læri að óttast mig alla þá daga sem þeir lifa á jørðunni, og kénni það einnig børnum sínum. 11. Þér komuð þá framm og staðnæmdust undir fjallinu, en fjallið logaði allt í eldi uppí meigin lopt, fylgdi þar með mirkur ský og þoka. 12. Og Drottinn talaði við yður mitt úr eldinum, róminn orðanna heyrðuð þér, en aungva mind sáuð þér, rómurinn var það einn. 13. Þá byrti hann yður sinn sáttmála, eptir hvørjum hann bauð yður að breita, þau 10 boðorðin, sem hann skrifaði á 2 steinspjøld. 14. Um leið skipaði Drottinn mér að eg skyldi kénna yður lagasetnínga og réttarboð, svo þér gjætuð breitt þar eptir í því landi sem þér eruð á veginum að eignast. 15. Gjætið nú vel sálna yðvarra, því þér sáuð aungva mind á þeim degi þegar Drottinn yðar Guð talaði við yður úr eldinum á Hóreb, 16. að þér ekki mannspillið yður, með að tilbúa yður nokkra líkneskju, sem líkist kalli eða konu, 17. eður fénaði á jørðu eður fuglum sem fljúga í loptinu, 18. ellegar ormum á jørðunni, eður fiskunum í vatninu undir jørðinni. 19. Enn framar — þegar þú lyptir augum þínum til himins og skoðar sólina, túnglið og stjørnurnar, þenna mikla himinsins herskara, að þú þá ekki snúist frá mér, og tilbiðjir þau og dýrkir, þó Guð hafi leift øðrum þjóðum undir himninum að skipta þeim með sér (til átrúnaðar). 20. En yður hefir Drottinn tekið að sér og leidt útúr járnofninum,

*) Sjá 4 Mós. b. 25, 3.

þad er: úr Egyptalandi, svo þér skylduð verda eins og Odalsfólk hans, hvad svo hefir reynst til þessa.

21. Og Drottinn vard mér reidur ydar vegna, svo hann sór ad eg skyldi ekki komast yfir Jórdan, ad eg ekki skyldi komast í þad góda landid, sem Drottinn Gud þinn mun géfa þér ad eign, 22. heldur hlýt eg ad deya í þessu landi, án þess ad komast yfir Jórdan, en þér munud þángad komast, og eignast landid þad id góda. 23. Gjætid ydar því ad þér ekki gleymid sáttmála Drottins ydar Guds sem hann hefir gjört vid ydur, og búid ydur ekki líkneski eptir nokkurs mind, eins og Drottinn þinn Gud hefir bodid þér. 24. Þvíad Drottinn þinn Gud er brennandi eldur og vandlátur Gud. 25. Þá þér alid børn og barnabørn, og erud algjørlega búnir ad koma ydur nidur í landinu, ef þér þá mannspillid ydur med ad gjøra líkneski eptir einhvørri mind, og breitid þannig ílla í augum ydar Guds, og reitid hann til reidi, 26. þá kalla eg í dag bædi himin og jørd til vitnis móti ydur, ad þá munud þér brádt eydast úr því landi, sem þér nú farid yfir Jórdan til ad eignast, þér munud ei leingi lifa þar úr því, heldur munud þér verda reknir burtu. 27. Drottinn mun þá dreifa ydur á millum þjódanna, svo ad af ydur skal einasta eptir verda lítill hópur á medal heidíngjanna, til hvørra Drottinn mun reka ydur. 28. Þar muntu þjóna þeim gudum sem eru tilbúnir af manna høndum, bædi úr tré og steinum, sem hvørki kunna ad sjá né heyra, eta né lukta. 29. Þá muntu leita Drottins þíns Guds og þú munt líka finna hann, svo framarlega sem þú leitar hans af øllu þínu hjarta, og allri þinni øndu. 30. Þegar þú kémst í allar þessar naudir, þá mun allt þetta koma fram vid þig seinna meir, en snúdu þér þá aptur til Drottins þíns Guds og hlýddu hans vilja, 31. Þvíad Drottinn, þinn Gud, er miskunsamur Gud, sem ekki mun yfirgéfa þig, né gjørsamlega eydileggja, og ekki mun hann gleyma sáttmálanum sem hann sór fedrum þínum. 32. Spyrdú þig einasta fyrir um tímana sem verid hafa fyrir þig, frá þeim tíma Gud skapadi fyrst manninn á jardríkid, já, spyrdu frá einu heimsskauti til annars, hvørt ad nokkurntíma hefir fyrri skéd edur heyrst svo vegsamlegur atburdur, 33. ad nokkur þjód hafi heyrt málróm Guds útaf midjum eldi, eins og þú hefir heyrt og lifir þó? 34. Eda hvørt Gud hefir tilreynt nokkurntíma ad koma sjálfur til ad ná handa sér þjód, sem var í annarar þjódar valdi, med raunum, teiknum, og fyrirburdum, med strídum, med voldugri hendi og útréttum armlegg, og óttalegum vidburdum, eins og Drottinn ydar Gud gjørdi alltsaman ydar vegna í Egyptalandi í þinni eigin augsýn. 35. Þetta hefir þú sjed, svo þú vissir, ad Drottinn er sá einasti Gud, en einginn annar. 36. Hann hefir látid þig heyra sína raust af himni til ad kénna þér, og hann hefir látid þig sjá sinn mikla eld á jørdu, og þú hefir heyrt útaf eldinum hans málróm. 37. Vegna þess hann elskadi ydar fedur, og tók trygd vid þeirra nidja, þá leiddi hann þig sjálfur úr Egyptalandi med sínum volduga krapti, 38. til þess ad reka í burtu þín vegna miklar þjódir, og voldugri enn þú ert, en leida þig aptur þángad og géfa þér land þeirra til eignar, eins og sídan hefir framkomid. 39. Svo máttu þad skilja í dag, og leggja þér á hjartad, ad Drottinn er Gud á himnum uppi, og á jørdu nidri, og alls einginn annar. 40. Taktú vara á hans lagasetníngum og tilskipunum, sem eg legg fyrir þig í dag, þá skal þér gánga vel og børnum þínum eptir þinn dag, svo þú meigir leingi lifa í því landinu sem Drottinn þinn Gud géfur þér til æfinlegrar eignar. 41. Þá tók Móses 3 borgir frá,

sem voru hinumeigin vid Jórdan í austur, 42. til þess ad þángad gjæti flúid sá sem óviljandi banar náúnga sínum, og væri hann ekki ádur fyrri hans óvin, þá mátti hann flýa til einhvørra þessara borga, og forda svo lífi sínu, 43. þær voru: Beser á eydimørkinni, á flatlendinu í Rúbenítalandi, og Ramot í Gilead, sem heyrir undir Gadita, og Gola í Basan, sem heyrir undir Manassis ættkvísl.

44. Þetta er þad løgmál sem Móses frammsetti fyrir Ísraels børn, 45. þetta eru þær auglýsíngar, lagasetníngar og bodord, sem Móses útlistadi fyrir Ísraels børnum, þá þeir voru sloppnir úr Egyptalandi, 46. hinumeigin vid Jórdan, í dalnum gagnvart Betpeor í landi Síhons Amoríta Kóngs, sem hafdi adsetur í Hesbon, hvørn ed Móses, og Ísraels børn feldu eptir burtførina úr Egyptalandi, 47. og tóku svo land hans, og líka land Kóngsins Oggs af Basan (voru þeir bádir Kóngar yfir Amorítum hinnmeigin vid Jórdan í austur), 48. nádi þad land frá Aroer, sem liggur vid lækinn Arnon, allt til fjallsins Síon, þad er: Hermon; 49. þar undir heyrdi líka flatlendid hinumeigin vid Jórdan í austur, ofan til sjáfarins sem er á undirlendinu fyrir nedan fjallid Písga.

## 5. Kapítuli.

Guds tíu laga bodord ítrekast.

1. Móses stefndi øllum Ísrael til samans, og sagdi til þeirra: heyr þú, Ísrael! þá lagasetnínga og þau bodord, sem eg í dag vil byrta þér í heyranda hljódi, svo þér lærid þau, haldid og breitid eptir þeim; 2. Drottinn vor Gud gjørdi vid oss sáttmála á Hóreb; 3. Ekki hafdi Drottinn gjørt þenna sáttmála vid forfedur vora, heldur vid oss sem hér erum nú á lífi nálægir; 4. Hann taladi vid oss eins og madur vid mann, midt úr eldinum uppá fjallinu. 5. (Eg stód á þeim tíma á millum Drottins og ydar, til ad bera ydur ord Drottins, því ydur stód ótti af eldsloganum, og geingud því ekki uppá fjallid) en hann sagdi:

6. Eg er Drottinn þinn Gud, sem útleiddi þig af Egyptalandi, úr því þrælsdóms fángelsi. 7. Þú skalt ekki hafa annarlega gudi fyrir mér. 8. Þú skalt aungva líkneskju gjøra þér eptir nokkurri mind, sem er á himnum uppi eda á jørdu nidri, eda í vatninu undir jørdinni. 9. Þú skalt ekki tilbidja þær edur dýrka, því ad eg er Drottinn þinn Gud, vandlátur Gud, sem læt fedranna afbrot koma framm vid børnin í þridja og fjórda lid, þad er ad segja, þegar þau hata mig; 10. Eg audsýni líka miskunsemi í þúsundasta lid þeim sem elska mig og halda mín bodord. 11. Þú skalt ekki leggja nafn Drottins þíns Guds vid ósannindi, því Drottinn mun ekki láta þann óhegndann, sem leggur hans nafn vid ósannindi. 12. Haltú helgan hvíldardaginn, eins og Drottinn Gud þinn hefir bodid þér; 13. Sex daga skaltú erfida og vinna allt þitt verk, 14. en sá sjøundi dagur er hvíldardagur Drottins þíns Guds, þá skaltu ekkért erfidi fremja, ekki heldur sonur þinn eda dóttir, ei heldur húskall þinn eda ambátt, eigi uxi þinn né asni, né nokkur af þínum gripum, eigi heldur hinn útlendi sem er innanborgar med þér, svo ad þinn þræll og ambátt fái ad hvíla sig eins og þú; 15. því þig skal reka minni til ad þú varst sjálfur þræll í Egyptalandi, og Drottinn þinn Gud leiddi þig þadan med voldugri hendi og útréttum armlegg, þess vegna baud Drottinn þinn Gud þér ad rækja hvíldardaginn. 16. Heidra skaltú fødur þinn og módur þína, eins og Drottinn þinn Gud hefir bodid þér, svo þú fáir leingi ad lifa og þér meigi vel vegna í landi því sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér. 17. Þú skalt ekki mann vega. 18.

Þú skalt ekki hórdóm drýgja. 19. Þú skalt
ekki stela. 20. Þú skalt ekki bera ljúgvitni
móti þínum náúnga. 21. Þú skalt ekki gyrn=
ast húsfreyu þíns náúnga, ei heldur hans hús,
akur, þræl eda ambátt, uxa, asna, eda nokkud sem
hann á med. 22. Þetta eru þau ord, sem
Drottinn taladi vid ydur þar sem þér vorud
samankomnir, á fjallinu, úr midjum eldinum,
skýinu og mirkrinu, med hárri raust. Bætti
hann þar aungvu vid, heldur skrifadi á 2 stein=
tøblur sem hann fékk mér. 23. En þá þér
heyrdud røddina úr dimmunni og fjallid log=
adi í eldi, þá geingud þér til mín, allir for=
menn og øldúngar í ydar ættkvíslum og søgd=
ud: 24. Sjá þú! Drottinn vor Gud hefir
sýnt oss sína dýrd og sitt tignar veldi, vér
heyrdum hans raust úr midjum eldinum, og
vér sáum í dag ad Gud talar vid manninn,
og ad madurinn heldur þó lifi. 25. En hví
skulum vér deya? þessi mikli eldur ætlar ad
eyda oss; ef vér nú leingur heyrum raustina
Drottins vors Guds, þá munum vér deya, 26.
því ad hvør madur hefir heyrt málróm lifanda
Guds úr midjum eldi, eins og vér, og haldid
þó lífinu? 27. Fardu nú og heyrdu hvad
Drottinn vor Gud segir, og ber oss þad apt=
ur, øllu sem hann segir vid þig viljum vér
gégna og hlýda. 28. Þá Drottinn heyrdi
þad sem þér tøludud vid mig, sagdi hann vid
mig: eg heyrdi hvad fólkid taladi vid þig, og
var þad vel talad. 29. En æ ad þeir ætíd
yrdu svo sinnadir, ad óttast mig og halda øll
mín bodord, svo þeim mætti æfinlega vegna
vel og børnum þeirra.

30. Fardu og segdu þeim ad hverfa heim í
sín landtjøld; 31. En þú skalt standa hér hjá
mér, á medan eg tala vid þig um þær tilskip=
anir setnínga og bodord, sem þú att ad brýna
fyrir þeim, svo þeir breiti þar eptir, þegar þeir
eru komnir í þad land sem eg mun géfa þeim
til eignar.

32. Svo haldid þetta þá, og breitid eins og
Drottinn ydar Gud hefir bodid ydur, og víkid
þar ei frá hvørki til hægri né vinstri. 33.
Gángid kostgæfilega þá leid, sem Drottinn yd=
ar Gud hefir fyrir ydur lagt, svo ydur farnist
vel og farsællega og þér lifid leingi í því land=
inu sem þér munud eignast.

## 6. Kapítuli.

*Móses hvetur þjódina til ad muna og vardveita Guds bodord.*

1. Þetta eru þær tilskipanir setníngar og
bodord sem Drottinn ydar Gud hefir bodid
ad þér skyldud læra og breita eptir í því land=
inu, sem þér erud nú á veginum ad eignast;
2. ad þú skalt óttast Drottinn þinn Gud, og
halda alla hans setnínga og tilskipanir sem eg
legg fyrir þig, bædi þú sjálfur, børn þín og
barnabørn, um alla ydar æfidaga, svo þér
meigid leingi lifa. 3. Heyr þetta, Israel!
vardveit þad og breit þar eptir, svo þér meigi
gánga vel, og manntal þitt aukast sem mest,
þared Drottinn Gud fedra þinna hefur heitid
þér því landi, hvar mjólkinni flædir og hun=
ánginu. 4. Heyr þú, Israel! Drottinn vor
Gud er sá einasti Gud; 5. þú átt ad elska Drott=
inn þinn Gud af øllu hjarta þínu, allri øndu
þinni og øllum mætti þínum; 6. og þessi ord
sem eg í dag legg fyrir þig, skaltú leggja á
hjartad, 7. og þú skalt brýna þau fyrir børn=
um þínum, og þú skalt tala um þau, þegar
þú sitúr heima, ert á ferils fæti, og þegar þú
legst fyrir, eda rís upp aptur. 8. Og þú
skalt binda þau til merkis á hønd þér, og þau
skulu vera minnisblad millum augna þér *).

*) Þettad litur til Pergaments reima sem Gydingar báru á enninu (millum augnanna) og á úlflidnum, og ritudu þará vissar merkisgreinir úr løgmálinu svo sem til minnis, sjá 2 Mós. 13., 9. 16. Seinna meir vard hjátrú úr þessu, eins og

9. Þú skalt skrifa þau á þína dyrustafi og á
borgarhlidin, 10. þegar Drottinn þinn Gud hefir
leidt þig inní landid, sem hann med eidi lofadi
forfedrum þínum Abraham, Isaak og Jakob
ad géfa þér, til stórra og ágætra borga sem þú
ekki hefir sjálfur byggt, 11. til húsa sem eru
full med allskyns kosti, en sem þú hefir ekki
sjálfur fyllt — til úthøgginna brunna, sem þú
ekki hefir úthøggid, til víngarda og ólíu-
garda sem þú ekki hefir plantad; þá þegar þú
etur af þessu og verdur mettur, 12. svo vara þig
ad þú gleymir ekki Drottni, sem útleiddi þig af
Egyptalandi, því þrældóms fángelsinu, 13. held-
ur skaltu óttast og dýrka Drottinn þinn Gud,
og sverja vid hans nafn; 14. Þú skalt ekki
géfa þig vid annarlegum gudum þeirra þjóda
sem í kríngum þig eru. 15. Þvíad Drottinn
þinn Gud, er vandlátur Gud, og er hjá þér.
Svo hann verdi þér ekki reidur og afmái þig
af landinu. 16. Freistid ekki Drottins ydar
Guds, eins og þér freistudud hans í Massa, 17.
heldur skulud þér halda bodord Drottins ydar
Guds, hans auglýsíngar og lagasetnínga, sem
hann hefir lagt fyrir ydur. 18. Gjør þad
sem hann álítur rétt og gott, svo þér meigi vel
vegna, og þú komist inní landid góda og eignist
þad, hvørju Drottinn med eidi lofadi þínum
forfedrum. 19. Þína fjandmenn mun hann
reka á undan þér, eins og Drottinn er búinn
ad lofa. 20. Þegar sonur þinn seinna meir
spyr þig ad og segir: hvada auglýsíngar, løg
og bodord eru þad, sem Drottinn vor Gud
hefir lagt fyrir ydur? 21. þá skaltu svara syni
þínum: vér vorum þrælar Faraonis í Egypta-
landi, en Drottinn útleiddi oss af Egyptalandi
med voldugri hendi, 22. og Drottinn gjørdi
stór og skjæd tákn og furduverk á hendur E-
gyptskum, Faraó sjálfum og hirdmønnum hans,
ad oss ásjáandi, 23. og hann leiddi oss þad-
an burt, svo hann leiddi oss inn híngad, og
gjæfi oss þad land, sem hann med eidi var bú-
inn ad heita forfedrum vorum. 24. Þá baud
Drottinn oss ad vér skyldum breita eptir øllum
þessum setníngum, svo ad vér óttudumst Drott-
inn vorn Gud, ad oss mætti gánga vel alla æfi
vora, eins og geingid hefir til þessa; 25. og
þad mun verda oss til gyldis fyrir Drottni
vorum Gudi, ef vér høldum og gjørum øll þessi
bodord eptir hans vilja.

## 7. Kapítuli.

*Israels børn meiga ei semja frid vid Kananíta, né teingjast vid þá.*

1. Þegar Drottinn þinn Gud, hefir leidt
þig inní þad landid, sem þú nú stefnir ad, til
ad ná því undir þig, og hann rekur þadan
burtu fyrir þér margar þjódir, sem eru Hetít-
ar, Girgosítar, Amorítar, Kananítar, Ferisítar,
Hevítar og Jebúsítar, sjø þjódir sem eru bædi
meiri og voldugri enn þú, 2. og sem hann hefir
géfid þær á þitt vald svo þú sláir þær, þá skaltu
leggja á þær bann *), gjøra aungvan (fridar-
samníng) vid þær, né sýna þeim nokkra vægd.
3. Þú skalt ekki mægjast vid þær, þú skalt ei
géfa þeirra sonum þínar dætur, og þeirra dæt-
ur skulud þér ekki taka til handa sonum ydar,
4. því þær munu koma sonum ydar til ad falla
frá mér, og til ad dýrka annarlega gudi, og
mundi þá Drottinn reidast ydur og afmá ydur
skyndilega; 5. heldur skulud þér fara med þá
sem nú segir: þér skulud rífa nidur þeirra ølt-
uru, brjóta mindarstólpa þeirra, uppræta lunda
þeirra, og god þeirra skulud þér brenna í eldi;
6. því ad þú ert Drottni þínum Gudi helgad-
ur lýdur, og hann kaus þig af øllum þjódum
á jardríki, til ad vera sína eigin þjód; 7. ekki

blød þessi hefdu einhvørn kynjakrapt til ad varna ólukkum, og skinhelgin brúkadi þau til ad koma á sig gudhrædslu
ordi, til þessa er midad af Jesú i N. T. sjá Mth. 23, 5. *) Sjá Kap. 3, 6.

var þad af því, ad þú værir fjølmennari, enn adrar þjódir, ad Drottinn þannig tók þig ad sér, og kaus þig — því þú ert einhvør hin minnsta þjód. 8. Heldur af því hann hefir elskad ydur, og til ad halda eidinn sem hann hafdi svarid ydar forfedrum, þá útleiddi hann ydur med voldugri hendi, og frelsadi þig af þrældóms fángélsinu, af hendi Faraós Egyptalands Konúngs; 9. því þér skulud vita ad Drottinn ydar Gud er sá rétti Gud, er trúfastur Gud, sem heldur sáttmála og miskunsemi í þúsund lidu vid þá sem hann elska og vardveita hans bodord; 10. en hann géldur líka þeim sem hann hata med minnistædum óførum, og hann dregur ekki ad endurgjalda þeim eptirminnilega sem hann hata. 11. Vardveitid þess vegna þau bodord og setnínga, sem eg í dag legg fyrir ydur til eptirbreitni; 12. þér munud og hljóta laun fyrir, ef þér heyrid þessi løg, haldid þau og breitid eptir þeim; en Drottinn þinn Gud mun halda vid þig þann sáttmála og miskunsemi sem hann sór þínum forfedrum, 13. hann mun elska, blessa og margfalda þig, og hann mun blessa þinn lífs ávøxt, og ávøxt lands þíns, þitt korn, þitt vín, þitt vidsmjør, ávøxtinn af þínum kúm og búsmala, í því landinu sem hann med eidi lofadi forfedrum þínum ad géfa þér; 14. þú munt verda øllum þjódum farsælli, einginn madur skal vera ófrjóssamur medal þín, ekki heldur skal fénadur þinn verda ófrjóssamur, 15. þá mun Drottinn líka bægja frá þér øllum sjúkdómum, og þann vonda Egyptska kránkleika, sem þú þekkir, mun hann ekki leggja á þig, heldur á þína haturs menn; 16. þú munt eyda øllum þeim þjódum, sem Drottinn þinn Gud géfur á þitt vald, þú skalt ekki vægja þeim, og ekki dýrka þeirra gudi, því þad mundi verda þér ad snøru. 17. En þú hugsar kannské med sjálfum þér, þetta fólk er fjølmennara enn eg, hvørnig gét eg rekid þad burt? 18. Þú skalt ekki vera hræddur vid þad; láttu þig reka minni til þess sem Drottinn þinn Gud gjørdi vid Faraó, og alla Egyptalands menn, 19. til þeirra miklu rauna, sem þér sáud med eigin augum, tákna og stórmerkja, hvørnig Drottinn þinn útleiddi þig med voldugri hendi og útréttum armlegg, eins mun Drottinn þinn gjøra øllu því fólki sem þú ert hræddur vid; 20. Drottinn þinn Gud mun senda geitúnga *) á medal þeirra þángad til þeir allir verda eydilagdir sem eptir hafa ordid, og hafa falid sig fyrir þér; 21. verid þess vegna ekki hræddir vid þá, því Drottinn þinn Gud er med ydur, sá hinn mikli og ógurlegi Gud. 22. Samt mun Drottinn þinn Gud eyda þessum þjódum fyrir þig smátt og smátt, þú mátt ekki allt í einu uppræta þær, svo ad skógardýrin verdi ekki ofmørg á móti þér í landinu; 23. Drottinn þinn Gud mun géfa þær á þitt vald, og gjøra mikid mannfall medal þeirra, þángadtil þú hefir upprætt þá, 24. og hann mun géfa þeirra Kónga í þínar hendur hvørra nøfn þú skalt uppræta undir himninum; einginn skal géta stadist fyrir þér, alla muntu þá yfirstíga; 25. þú skalt í eldi brenna líkneski þeirra skurdgoda, þú skalt ei girnast þad gull eda silfur sem þar er á, eda taka til þín nokkud af því, svo þér verdi ekki á í því, því slíkt er svívirdíng fyrir Drottni þínum Gudi; 26. þú skalt því ekki bera þá svívirdíng inní þitt hús, svo ad þú ekki ratir í sama bannid sem þad er í, heldur skal þér standa vidbjódur og stuggur af því, þared þad er í banni.

## 8. Kapítuli.

Guds velgjørníngar vid Israels børn eiga ad hvetja þá til hlýdni vid hans bod.

1. Øll þau bodord sem eg legg fyrir ydur

*) Sbr. Exód. 23, 28.

í dag, skulud þér vardveita til eptirbreitni, svo þér verdid lánsamir og farsælir, og fáid til eignar landid sem Drottinn lofadi forfedrum ydar med eidi. 2. Látid ydur reka minni til allrar þeirrar leidar, sem Drottinn þinn Gud leiddi þig yfir í þessi 40 ár í eydimørkinni, svo ad hann med nokkru mótlæti reyndi þig, til ad þekkja þinn innri mann, hvørt þú mundir halda hans bodord edur ekki.

3. Hann lét þig rata í húngursneyd, en þá fæddi hann þig á Manna sem hvørki þú né þínir forfedur þekktu til, svo þú skyldir sjá, ad madurinn lifir ekki einasta á braudi, heldur á hvørju ødru sem Drottinn leggur honum til; 4. klædi þín hafa ekki slitnad*), edur fætur þínir þrútnad í þessi 40 ár.

5. Þú mættir því finna þad hjá sjálfum þér, ad einsog fadir fóstrar son sinn, eins hefir Drottinn þinn Gud fóstrad þig; 6. vardveittu þessvegna bodord Drottins þíns Guds, ad þú gángir á hans vegum og óttist hann.

7. Þegar Drottinn þinn Gud er búinn ad leida þig inní landid góda, þad landid hvar vatnsføll eru, uppsprettur og stødudøtn sem spretta upp í dølum og fjøllum, 8. inní landid hvar nóg er af hveiti, biggi, vínvidi, fíkjutrjám og granateplum, vidsmjørstrjám og hunángi, 9. inní landid, hvar þú ekki munt þurfa ad eta þitt braud med fátækt, og hvar þig mun ekkért bresta, hvørs steinar eru járn, og hvar þú gétur grafid koparinn úr fjøllunum, 10. þá skaltu — nær þú hefir etid þig mettann — þakka Drottni þínum Gudi fyrir landid þad id góda, sem hann gaf þér. 11. En varadu þig vid því ad þú gleymir ekki Drottni Gudi þínum med því ad halda ekki hans bodord, tilskipanir og løg, sem eg í dag legg fyrir þig, 12. ad þegar þú hefir etid þig mettann, og byggt þér prýdileg hús ad búa í, 13. og þegar þú eflist ad nautum og saudum, silfri og gulli, og allskyns fjármunum, 14. varadu þig, segi eg, ad þú metnist þá ekki med sjálfum þér, og gleymir Drottni þínum Gudi, sem leiddi þig úr Egyptalandi, því þrældóms fángelsinu, 15. sem leiddi þig yfir þá miklu og hrædilegu eydimørk, hvared voru stíngandi høggormar og sporddrekar, þar var og hrjóstur mikid og vatnsleysi, en hann lét vatn buna fram af hardri hellu handa þér, 16. hann fæddi þig í eydimørkinni á Manna sem forfedur þínir þekktu ei til, ad hann fyrst reyndi þig med nokkurri mædu, en gjørdi þér svo vel til áeptir.

17. Ekki skaltú hugsa med sjálfum þér: mín eigin orka, og stirkur minna handa hafa aflad mér þessarar megunar, 18. mundu heldur til Drottins þíns Guds, því hann er þad sem veitti þér krapta til þessarar velmegunar, því hann vildi halda sinn sáttmála, sem hann hafdi svarid forfedrum þínum, hvøru hann og hefir haldid til þessa. 19. En ef þú gleymir Drottni þínum Gudi, og géfur þig vid annarlegum gudum, dýrkar þá og tilbidur, þá segi eg þér nú strax fyrir sann, ad þad mun brádlega vera úti med ydur, 20. einsog med þær þjódir sem Drottinn eydilagdi fyrir ydur, eins munud þér farast, af því þér ekki vildud hlýda vilja Drottins ydar Guds.

## 9. Kapituli.

Israels børn meiga ei ætla ad þau hafi verdskuldad Guds miklu velgjørnínga.

1. Heyr þú, Israel! í dag muntu fara yfirum Jórdan, til ad hrekja burtu þjódir sem eru stærri og voldugri enn þú, stórar borgir múradar uppí hálopt, 2. til mikillar og voldugrar þjódar, Enakims nidja, um hvørja þér þekkid og heyrt hafid þetta máltæki; „hvør gétur stadist móti Enakims nidjum". 3. Þú munt því reyna á þessum degi ad Drottinn þinn Gud,

*) Þig hefir aldrei brostid fatnad.

mun gánga á undan þér, sem brennandi eldur, hann mun eyda þeim og undiroka fyrir þér, hann mun reka þá í burtu, og fyrirkoma þeim snarlega, eins og Drottinn hefir lofad þér.

4. En þegar Drottinn hefir útrekid þessar þjódir fyrir þig, þá hugsadu ekki med sjálfum þér: søkum vors réttlætis hefir Drottinn leidt oss til eignar á þessu landi, og hann hefir útrekid þessar þjódir frá sér vegna þeirra gudleysis.

5. Því hvørki vegna réttlætis þíns, edur rádvendni hjarta þíns geingur þú ad eignast landid, þvíad Drottinn þinn Gud útrekur þessar þjódir fyrir þig vegna þeirra eigin gudleysis, og til þess hann haldi þau loford sem hann gaf forfedrum þínum Abraham, Isaak og Jakob. 6. Þú skalt þá vita ad Drottinn þinn Gud géfur þér ekki til eignar land þetta id góda søkum nokkurra verdleika þinna, þú ert miklu fremur hardsvýrud þjód.

7. Mundu til þess, og gleym því aldrei, hvørnin þú reittir Drottinn þinn Gud til reidi í eydimørkinni; frá því þú fyrst lagdir afstad úr Egyptalandi, og þar til þér komust híngad, hafid þér verid Drottni óhlýdnir. 8. Hjá Hóreb reittud þér Drottinn svo til reidi, ad hann í reidi sinni ætladi ad eydileggja ydur.

9. Þegar eg var kominn uppá fjallid til ad taka á móti steintøblunum, tøblunum sem sáttmálinn var á, er Drottinn hafdi gjørt vid ydur, og eg hélt þar til á fjallinu í 40 daga og 40 nætur, án þess ad smakka þurrt edur vott (neyta matar eda drykkjar), 10. og Drottinn fékk mér 2 steintøblur, skrifadar med Guds fíngri, hvará voru øll þau ord sem Drottinn hafdi talad vid ydur á fjallinu, midt úr eldsloganum, daginn sem þér vorud þar samankomnir, 11. þá þessir 40 dagar og 40 nætur voru lidnar, fékk Drottinn mér þær 2 steintøblur sáttmálans, 12. og sagdi vid mig: stattu upp og fardu hédan fljótt, því ad fólk þitt sem þú leiddir út af Egyptalandi, hefur misbrotid og vikid fljótt af þeim veigi sem eg lagdi fyrir þá, þeir hafa tilbúid handa sér steypt líkneski; 13. Og Drottinn sagdi vid mig þessi ord: eg sje ad þetta fólk er hardsvýrad, 14. lofadu mér ad afmá þad og uppræta þess nafn undir himninum, en eg vil gjøra útaf þér voldugri og fjølmennari þjód enn þessi er. 15. Eg brá vid og gékk ofanaf fjallinu sem logadi í eldi, og hafdi í bádum høndum þær 2 sáttmáls tøblur, 16. þá sá eg ad þér høfdud syndgad móti Drottni Gudi ydar med því ad tilbúa ydur steyptan kálf, og vorud þannig fljótt viknir af þeim vegi sem Drottinn hafdi lagt fyrir ydur; 17. Þá greip eg bædi spjøldin, og þeitti þeim af bádum høndum, og braut þau í sundur fyrir augunum á ydur; 18. en eg féll framm fyrir Drottinn eins og ádur í fyrra sinni, í 40 daga og 40 nætur, og smakkadi hvørki þurrt né vott, søkum allra ydar synda sem þér høfdud drýgt, er þér breittud svo illa í hans augum ad hann reiddist ydur. 19. Þvíad eg var hræddur vid þá reidi og heiptarbrædi, sem Drottinn hafdi til ydar, svo hann ætladi ad afmá ydur, en þá bænheyrdi Drottinn mig. 20. Drottinn reiddist líka mjøg Aroni, svo hann vildi afmá hann, en eg bad þá líka strax fyrir Aron. 21. En ydar synd — kálfinn sem þér høfdud tilbúid — tók eg, brenndi hann í eldi, og (muldi smátt), þángad til hann vard ad dupti, en duptinu þeitti eg útá þann læk sem þar rann ofanaf fjallinu. 22. Í Tabera, í Massa og hjá Girndargrofunum *) reittud þér líka Drottinn til reidi; 23. Og þegar Drottinn sendi ydur úr Kadesbarnea, og sagdi: farid og náid undir ydur landinu sem eg hefi géfid ydur, þá vorud þér óhlýdnir skipun Drottins ydar Guds; þér

*) Um þetta nafn, sjá 4 Mós. 11. 34, 35.

trúdud honum ekki, og hlýddud ekki hans raustu, 24. því þér hafid verid óþekkir Drottni frá því eg þekkti ydur fyrst. 25. Eg féll þess vegna framm fyrir hann í 40 daga og 40 nætur, og lá þannig, því hann kvadst mundi afmá ydur, 26. eg bad Drottinn og sagdi: Drottinn minn Gud, afmá ekki þitt fólk, og þinn eigindóm, sem þú frelsadir med þínum mikla krapti, sem þú útleiddir af Egyptalandi med voldugri hendi; 27. minnstu á þína þénara Abraham, Isaak og Jakob, en lít ekki á þvermódsku gudleysi og glæpi fólks þessa, 28. svo landid sem þú leiddir oss útúr géti ekki sagt: „Drottinn gat þá ekki leidt þá inní landid eins og hann hafdi lofad þeim", ellegar, „af hatri leiddi hann þá burtu til ad drepa þá nidur í eydimørkinni". 29. því þeir eru þín þjód, þín eign, sem þú útleiddir med þínum mikla krapti og med þínum útréttum armlegg.

## 10. Kapítuli.

Upphvatning til hlýdni.

1. Í sama sinni sagdi Drottinn vid mig: høgg þú til 2 steinspjøld eins og hin fyrri, komdu til mín uppá fjallid, og gjørdu þér ørk af tré, 2. því eg ætla ad skrifa á spjøldin þad sama sem var á hinum fyrri er þú brautst í sundur, og skaltu leggja þau í ørkina. 3. Eg gjørdi þá ørk eina af belgþornsvidi, og hjó til 2 steinspjøld, eins og hin fyrri, gékk svo uppá fjallid, og hélt á bádum steinspjøldunum. 4. Þá skrifadi hann á tøblurnar þad sama sem hann hafdi skrifad á þær fyrri, þau 10 bodord, sem hann hafdi mælt framm vid ydur á fjallinu, úr midjum eldinum, daginn sem þér vorud þar samankomnir, sídan fékk Drottinn mér þær í hendur. 5. Eg snéri mér þá, og gékk ofanaf fjallinu, og lagdi spjøldin í ørkina sem eg hafdi tilbúid, svo ad þau væru geymd þar, eins og Drottinn hafdi lagt fyrir mig. 6. (Israels børn ferdudust frá Jaakaníta brunnum (til) Mosera. Þar andadist Aron og var jardadur, og sonur hans Eleasar vard kénnimadur í hans stad. 7. Þadan ferdudust þeir til Gudegoda *), og þadan til Jotbata, eru þar nógir lækir í því landi. 8. Um þetta leiti tók Drottinn ættkvíslina Leví frá, til þess ad þeir bæru sáttmálsørk Drottins, stædu fyrir Drottni og þjónudu honum og prísudu hans nafn, eins og þeir gjøra enn í dag.

9. Þess vegna skulu Levítar ekki hafa hlutdeild edur eigindóm medal landa sinna. Gud skal vera þeirra eigindómur, eins og hann hét þeim.)

10. Og eg hélt til þarna á fjallinu, eins og í fyrra sinni, 40 daga og 40 nætur, og Drottinn bænheyrdi mig í þetta skipti og vildi ekki afmá þig, 11. en hann sagdi vid mig: tak þig upp hédan, og hafdu alla fyrirgaungu fyrir þessu fólki, svo þad géti nád ad eignast þad landid, sem eg med eidi lofadi forfedrum þeirra ad géfa þeim. 12. Nú Israel! hvørs krefur Drottinn þinn Gud af þér nema þess ad þú óttist Drottinn þinn Gud, svo ad þú gángir á øllum hans vegum, elskir hann og þjónir honum af øllu þínu hjarta og af allri þinni sálu; 13. ad þú haldir hans bodord og setnínga, sem eg hefi lagt fyrir þig í dag, til þess ad þér mætti sjálfum lída vel? 14. Sjá þú! himnarnir og himnanna himnar, jørdin og allt sem á henni er, tilheyrir Drottni Gudi þínum; 15. samt dró hann velvilji til forfedra þinna, er hann elskadi þá svo, ad hann valdi afkomendur þeirra, ydur, fremur øllum þjódum ødrum, eins og sjá má enn í dag. 16. Umskérid þess vegna yfirhúd ydar hjarta, og verid ekki leingur hardsvýradir! 17. þvíad Drottinn ydar Gud er Gud yfir øllum Gudum,

*) Kallast ødru nafni Horgidgad Núm. 33, 22.

er Drottinn yfir øllum Drottnum, mikill Gud, voldugur og óttalegur, hann fer ekki í manngreinar álit, og þiggur aungvar mútur; 18. hann heldur uppi svari ekkjunnar og hins føðurlausa, og elskar útlendínginn, svo hann géfur honum mat og klædi. 19. Þess vegna skulud þér líka elska útlendínginn, því þér vorud sjálfir útlendíngar í Egyptalandi; 20. Drottinn Gud þinn skaltu óttast, honum skaltu þjóna, hann skaltu adhyllast, og vid hans nafn skaltu sverja; 21. hann skal vera þitt yrkisefni, hann er þinn Gud, sem hefir gjørt svo mikla og ógurlega hluti hjá þér, sem þú hefir sjed med eigin augum. 22. Forfedur þínir voru 70 ad tølu, þegar þeir fóru ofaní Egyptaland, en nú hefir Drottinn þinn Gud fjølgad þeim ad þeir eru margir ordnir eins og stjørnur himinsins.

## 11. Kapítuli.

Þeim er heitin farsæld, sem hlýda Guds bodordum.

1. Elska skaltu Drottinn þinn Gud, og halda hans løg, tilskipanir og bodord alla þína æfi; 2. því þér þekkid — ekki tala eg þetta til barna ydar, sem hvørki hafa skinbragd á, né hafa sjed aga Drottins ydar Guds, 3. já, þér þekkid hans dýrd, hans volduga hønd og útréttan armlegg, hans stórmerki og dásemdarverk, sem hann gjørdi medal Egyptskra, á Faraoni Egyptalands Konúngi og øllu landi hans, 4. og hvad hann gjørdi vid herlid Egyptskra, vid þeirra hervagna og víghesta, þegar hann hleipti á þá vatninu í Rauda hafinu, er þeir eltu ydur, og eydilagdi þá, hvad allt er enn í manna minni; 5. og hvad hann gjørdi vid ydur í eydimørkinni allt til þess þér komust híngad; 6. og hvørnig hann fór med Datan og Abíram syni Eliabs, sem voru af Rúbenítum, ad jørdin opnadi sinn munn og svelgdi þá í sig midt úr flokki Israelíta, ásamt med þeirra heimilisfólki, tjøldum og øllu gótsi þeirra sem þeir høfdu aflad; 7. hvør miklu dásemdarverk Drottins þér hafid sjed med eigin augum. — 8. Þess vegna skulud þér halda øll þau bodord sem eg legg í dag fyrir ydur, svo ydur veitist styrkur til ad ná ad eignast þad landid, sem þér nú ætlid ad setja ydur yfirum Jórdan til ad ná undir ydur, 9. og til þess þú meigir leingi lifa í því landi sem Drottinn lofadi med eidi ad géfa forfedrum þínum og þeirra nidjum, landinu hvar mjólkinni flædir og hunánginu. 10. Og þetta land, sem þú geingur til ad eignast er ekki eins og Egyptaland, hvadan þér fórud, því þegar þú varst búinn ad sá þar fræi þínu, máttu fætur þínir hafa fyrir ad vøkva þad, eins og annan kálgard, 11. heldur hefir þetta land sem þér ætlid ad setja yfirum til ad eignast, bædi fjøll og dali, og þad drekkur himinsins regnvatn.

12. Drottinn þinn Gud ber umhyggju fyrir þessu landi, og hans augu gjæta ad því frá ársins byrjun til þess enda; 13. Ef þér hlýdid mínum bodordum sem eg legg fyrir ydur í dag, sem eru: ad þér elskid Drottinn ydar Gud og þjónid honum af øllu hjarta og af allri sálu, 14. þá skal eg (segir Drottinn) géfa ydar landi regn í tækan tíma, bædi vor og haust, svo þú gétir safnad þér korni þínu, víni og vidsmjøri; 15. þá skal eg láta spretta í høgunum nóg gras handa fénadi þínum, svo þér gétid feingid nægjanlegt vidurværi.

16. En þér varid ydur vid því, ad láta ekki

V. 10. 11. Í Egyptalandi rigndi litid, svo þeir jusu þar vatn úr Nilfljótinu med tilsæringum og veittu svo á akra sína, þessar tilfæringar voru gjørdar med konst, og máttu menn stiga þær med fótunum, því segir ad fæturnir hafi vøkvad. Móses telur þad því Kanaans landi til gyldis ad þad drekki himinsins regnvatn — er þad líka sannreynt ad korn þad sem sprettur af regni er lángtum betra enn hitt sem sprettur af vatnsveitingum.

ydar hjørtu tælast til ad falla frá og þjóna annarlegum gudum og dýrka þá, 17. því þá mun Drottni gremjast vid ydur, og loka himninum, svo ekki komi regn, né jørdin gefi ávøxt, en þér snarlega upprætist úr landinu því góda, sem Drottinn hefir gefid ydur. 18. Innrætid því þessi mín ord ydar hjørtum og sálum, og bindid þau til merkis fyrir ofan hendurnar, og þau séu minnisblød millum augna ydar; 19. brýnid þau fyrir børnum ydar og rædid um þau bædi nær þér sitjid inni og erud á ferilsfæti, 20. nær þú leggur þig fyrir og rís upp, 21. skrifa þau á dyrustafi húss þíns og á borgarhlidin, svo ad þú og børn þín meigi leingi lifa í því landinu, sem Drottinn med eidi hét forfedrum þínum ad gefa þeim, já, lifa svo leingi sem dagur af himni rennur yfir jørdina, 22. því ef þér haldid øll þessi bodord, sem eg legg fyrir ydur, og breitid eptir þeim, svo þér elskid Drottinn ydar Gud, gángid á øllum hans vegum, og haldid ydur vid hann, 23. þá mun Drottinn reka í burtu fyrir ydur allar þjódir, svo ad þér getid lagt undir ydur stærri og voldugri þjód enn þér erud sjálfir. 24. Sérhvør stadur, sem þér stígid fæti á skal verda ydar eign, frá eydimørkinni allt til Libanon, frá elfunni Frat allt til Vesturhafsins (þ. e. Midjardarhafsins) skulu ydar landamerki ná. 25. Einginn skal geta stadist fyrir ydur; ótta fyrir ydur og hrædslu mun Drottinn láta koma yfir øll þau lønd sem þér farid yfir, eins og hann hefir sagt ydur. 26. Sjá! eg legg ydur fyrir sjónir í dag blessunina og bølvunina. 27. blessunina, ef þér hlýdid þeim bodordum Drottins ydar Guds sem eg legg fyrir ydur í dag, 28. en bølvanina, ef þér hlýdid ekki bodordum Drottins ydar Guds, og víkid af þeim vegi sem eg bíd ydur í dag, og gefid ydur vid annarlegum gudum sem þér ekki þekkid. 29. Þegar Drottinn hefir leidt þig inní landid sem þú ert á veginum ad eignast, þá skaltu hrópa blessunina á fjallinu Grisím, en bølvanina á fjallinu Ebal, 30. (sem eru hinumeigin vid Jórdan, í vestur, á sléttlendi Kanaanslands, á móts vid Gilgal, hjá terpentínstrénu More*), 31. því þú munt fara yfirum Jórdan svo þú komist þángad til ad eignast landid, sem Drottinn ydar Gud hefir gefid ydur til eignar og ábúdar. 32. Gjætid þess vegna ad því, ad þér breitid eptir øllum þeim løgum og tilskipunum sem eg hefi lagt fyrir ydur í dag.

## 12. Kapítuli.

*Hvørnig Gud vill dýrkast í Israel.*

1. Þessi eru þau bod og tilskipanir sem þér eigid ad vardveita svo leingi sem þér lifid á jørdunni, svo þér getid breitt eptir þeim í því landinu, sem Drottinn, þinna fedra Gud, hefir gefid þér til eignar. 2. Nidurbrjótid ad velli alla þá stadi, hvørt þeir eru á háfjøllum, hálsum, eda þá undir blómgudum vidareikum, á hvørjum þjódirnar — sem þér munud reka frá løndum — hafa þjónad sínum gudum. 3. Nidurrífid þeirra stalla, brjótid þeirra mindarstólpa, uppbrennid í eldi þeirra lunda og mølvid þeirra god, og upprætid þannig þeirra nøfn úr þessum stødum. 4. Þér skulud ekki dýrka Drottinn ydar Gud med líkum hætti, 5. heldur í þeim stad sem Drottinn ydar Gud mun velja sér af øllum kynkvíslum til íbúdar, ad því hans húsi skulud þér leita og þángad sækja, 6. þángad skulud þér flytja ydar brennioffur, og adrar

*) Adr: há Eik. adr: lundur. Terpentínstréd nær venjulega mjøg háum aldri, vid þad þúsund árum, þad var þess vegna álitid sem heilagt af þeim gømlu, sem opt offrudu undir því og bygdu þar ølturu; þaradauk høfdu austurlendingar gagn af þessum trjám til ad marka leidir, edur mida vid ferdaløg sín, eins og vér midum vid ein eda ønnur ørnefni, voru þá tré þessi opt kénd vid þá sem þau høfdu plantad, edu búid þar í grend og fleira. Terpentínstréd More var til í Abrahams tíd, sjá 1 Mós. b. 12, 6.

fórnir, ydar tíundir og gáfur, ydar heitgjafir og sjálfkrafa fórnir, og frumburdi ydar stórfénadar og saudfjár; 7. og þar skulud þér frammi fyrir Drottni ydar Gudi halda máltíd og gledja ydur, ásamt med heimilis fólki ydar, útaf øllum ydar útvegi, þvíad Drottinn ydar Gud mun blessa þig; 8. þér skulud ekki hegda ydur þá, eins og vér hegdum oss nú, er hvør gjörir þad honum gott þykir, 9. því þér erud ekki enn komnir á hvíldarstadinn, né til eignarinnar, sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér. 10. En þér munud kómast yfirum Jórdan og búa í því landi sem Drottinn Gud ydar úthlutar ydur, þá fyrst munud þér ødlast nædi fyrir øllum ydar óvinum allt í kríng, og meiga búa ugglausir. 11. Og þegar nú Drottinn hefir útvalid sér stad til íbúdar, þá skulud þér flytja þángad allt sem eg hefi bodid ydur, bædi ydar brennioffur og adrar fórnir, ydar tíundir, gáfur og útvalin heitoffur, sem þér ánafnid Drottni; 12. þar skulud þér gledja ydur frammi fyrir Drottni ydar og Gudi, med sonum ydar og dætrum, húskøllum ydar og þernum og Levítunum sem eru innan ydar borgarhlida, sem aungva hlutdeild edur eigindóm hafa med ydur; 13. en vara þig vid því ad þú offrir ekki þínu brennioffri á hvørjum helst stad sem fyrir þig ber, 14. heldur í þeim stad sem Drottinn útvelur medal einhvørrar af þínum kinkvíslum, þar skaltu offra þínu brennioffri og gjøra allt þad sem eg lagdi fyrir þig. 15. Samt máttu slátra og eta kjøt í borgum þínum, eptir þinni eigin vild, því ad Drottinn þinn Gud hefur þar til géfid þér sína blessun; bædi hinn hreini og óhreini meigu eta þad, svo sem til ad taka, bædi rádýr og hyrti, 16. þó svo ad þú etir ekki blódid, heldur hellid því útá jørdina eins og vatni. 17. En ekki meigid þér í borgum ydar eta af tíundum ydar korns, víns og vidsmjørs, ekki heldur af frumburdi þinna kúa, saudfjár, eda nokkud af þeim heitoffrum sem þú hefir lofad, eda af þínu sjálfkrafa offri eda af þínum gáfum; 18. heldur skaltu þetta eta frammi fyrir Drottni þínum Gudi, í þeim stad sem hann útvelur, ásamt med syni þínum, dóttur, húskalli og ambátt og þeim Levítum sem eru innan þinna borgarhlida, og skaltu þá gledja þig útaf øllum þínum útvegum, 19. og vara þig vid því ad þú aldrei vanrækir Levítana. 20. Þegar Drottinn þinn Gud færir út þín landamerki, eins og hann hefir lofad þér, og þig lángar til ad eta kjøt, þá máttu neyta þess eins og þig lystir. 21. En ef sá stadur er í fjarska vid þig sem Drottinn þinn Gud hefir útvalid sér til íbúdar, þá máttu slátra af þínum nautum edur saudfé, sem Drottinn hefir géfid þér, eins og eg hefi bodid þér, og et þad svo í þínum borgum eptir lyst þinni, 22. einasta þad sé med sama hætti og madur etur rádýr eda hjørt, þá máttu eta þad; bædi sá hreini og óhreini meigu borda af því; 23. einasta vara þig ad þú etir ei blódid, þvi ad (lífid) er í blódinu, en eingin má eta lifandi hold. 24. Heldur skaltu hella því út á jordina sem vatni, 25. og þú skalt ekki eta þad, svo þér meigi vel vegna og børnum þínum eptir þig, þared þú hafir gjørt þad sem Drottni líkadi.

26. En hafir þú helgad eitthvad sem er undir þinni hendi, edur þú hefir gjørt áheiti, þá skaltu taka þad og flytja til þess stadar sem Drottinn hefir valid sér; 27. þar skaltu offra þinni brennifórn med kjøti og blódi, á altari þíns Guds. En blódinu af þínu offri skaltu hella á altari Drottins þíns Gud, en kjøtid máttu eta.

28. Kostadu nú kapps um ad halda øll þessi bodord sem eg legg fyrir þig, svo ad þér meigi æfinlega vel vegna og þínum nidjum fyrir þad,

ad þú gjørdir þad sem er rétt og gott í augum
Drottins þíns Guds.
29. Þegar nú Drottinn þinn Gud hefir
afmád þær þjódir sem þú ert á veginum ad
leggja undir þig, og þú ert setstur þarad, eins
og þinni eign, 30. þá vara þig ad þú freistist
ekki, til ad taka upp þeirra sidi, og farir ei ad
forvitnast um þeirra gudi og segir: eins og
þessar þjódir dýrkudu sína gudi, eins vil eg
og gjøra; 31. þú skalt ekki hegda þér svo vid
Drottinn þinn Gud, því allt sem Drottinn álítur
svívyrdilegt og honum er á móti, gjøra þessar
þjódir gudum sínum, til heidurs, svo þeir jafn-
vel hafa gudum sínum til géds brennt í eldi
syni sína og dætur. 32. Þér skulud halda
øll þau bodord, sem eg legg fyrir ydur til ept-
irbreitni, þér skulud hvørki auka þar vid né
frátaka.

## 13. Kapítuli.

Um þeirra straff sem tæli til afgudadýrkunar.

1. Ef einhvør spámadur eda draumspekíng-
ur rís upp medal ydar, og géfur þér eitthvørt
teikn edur furduverk, 2. og þad teikn eda und-
ur rætist, eins og hann sagdi fyrir, og hann
segir: látum oss adhyllast annarlega gudi, sem
þér þekkid ekki, og dýrka þá, 3. þá skaltu ekki
hlýda ordum þess spámanns eda draumspekings,
þvíad Drottinn ydar Gud freistar ydar med
þessu, þar hann vill reyna hvørt þér elskid sig
af øllu hjarta og allri sálu, 4. því þér eigid ad
adhyllast Drottinn ydar Gud, óttast hann og
halda hans bodord, hlýda hans raustu, dýrka
hann, og halda ydur vid hann. 5. En sá spá-
madur eda draumspekíngur skal deya, af því
hann hvatti til fráfalls frá Drottni ydar Gudi,
sem útleiddi ydur af Egyptalandi, og frelsadi
ydur af því þrældómsfángélsinu, og af því hann
(vildi ginna) þig af þeim vegi, sem Drottinn
þinn Gud hefur bodid þér ad gánga á. 6.
Afmáid því þennan vonda úr ydar hóp. Þeg-
ar bródir þinn sammædra, sonur þinn eda dótt-
ir þín, eda konan í fadmi þínum, eda vinur þinn
sá þú elskar eins og þitt eigid hjarta, rædur
þér einslega og segir: látum oss fara og dýrka
annarlega gudi — sem hvørki þú þekkir né
þínir forfedur, 7. svo sem Gudi þeirra þjóda sem
kríngum ydur eru, hvørt þeir eru nær eda fjær,
frá einu heimsskauti til annars — 8. þá skaltu
ei fallast á þetta med honum, né gégna því,
þitt auga skal ekki vægja honum, og þú skalt
ekki skjóta skjólshúsi yfir hann af miskunsemi
vid hann, 9. heldur skaltu drepa hann, þín
kona skal vera hin fyrsta til ad vega ad hon-
um, og þar næst hønd alls almúgans. 10.
Med grjóti skulud þér lemja hann til dauda,
því hann vildi svíkja þig frá Drottni þínum
Gudi sem ad útleiddi þig af Egyptalandi, því
þrældómsfángélsinu, 11. svo ad allur Israel
verdi hræddur, þegar hann heyrir slíkt, og taki
aldrei sídan upp á slíku ódædi medal ydar.
12. Ef þú heyrir í einhvørjum þeim borg-
um, sem Drottinn þinn Gud hefir géfid þér til
íbúdar, ad menn segja: 13. ámedal þín eru
uppkomnir nokkrir skálkar, sem hafa villt stad-
arins innbúa og sagt: látum oss fara og þjóna
annarlegum gudum sem þér þekkid ekki til, 14.
þá skaltu innvyrdulega ransaka og rekast í þessu,
og ef þad reynist satt, ad sú svívyrdíng hafi
verid framin medal ydar, 15. þá skaltú slá
borgarmennina í þeim stad med sverdseggjum
og leggja bann á þá, med øllu sem þar er inni,
og einnig fénadi þeirra. 16. Allt herfángid
úr þeim stad skaltú bera fram á midt strætid,
og brenna svo í eldi, ásamt med borginni sjálf-
ri, til heidurs vid Drottinn þinn Gud, svo ad
borgin verdi ad ævarandi moldarrúst, og bygg-
ist aldrei sídan.
17. Lát ekkért af því bannfærda loda þér
vid høndur, svo ad Drottinn meigi snúa frá

þér sinni heiptarreidi, vera þér miskunsamur og líknsamur og margfalda þig, eins og hann med eidi lofadi þínum forfedrum. 18. Þú hefir heyrt raustu Drottins þíns Guds, ad þú skyldir halda øll hans bodord, sem eg legg fyrir þig í dag, svo þú mættir gjøra hvad rétt er í hans augum.

## 14. Kapituli.

Um leyfilega og óleyfilega fædu.

1. Þér erud børn Drottins ydar Guds, þér skulud ekki vekja ydur benjar, né raka ydur skøllótta fyrir ofan ennid, eptir nokkurn framlidinn, 2. því þú ert Drottni þínum Gudi helgad fólk, hann hefir útvalid þig af øllum þjódum ájardríki, ad þú skulir vera hans eigindómur.

3. Þú skalt ekki eta neitt vidbjódslegt; 4. þessi eru þau dýr sem þér meigid eta: naut, saudir, geitfé, 5. hjørtur, hind, hrein, steingeit, einhyrníngur, úruxi, elgsdýr, 6. og þér meigid eta allt þad kvikfé sem hefir adgreindar klaufir og jórtrar; 7. en þér skulud ekki eta þad sem jórtrar, en hefir ekki klaufir, svo sem úlfaldann, hérann og kúnísinn, þessi jórtra, en hafa ei klaufir, þessvegna skulu þau vera ydur óhrein; 8. sømuleidis svínid, sem hefir klaufir, en vegna þess þad jórtrar ekki, skal þad vera ydur óhreint, þér skulud ekki eta kjøtid af því, ei heldur snerta vid þess hræi. 9. Þetta meigid þér eta af vatnsdýrum: øll þau sem hafa sundugga og hreystur meigid þér eta; 10. en þau sem ekki hafa sundugga edur hreystur meigid þér ekki eta, því þau eru ydur óhrein. 11. Þér meigid eta alla hreina fugla; 12. en þessa skulud þér ekki eta: ørnina, gamminn, 13. og øssuna, valinn, gripfuglinn, kjóann med sínum tegundum, 14. og alskyns hrafnategundir, 15. strútsfuglinn, svøluna, svartbakinn og haukinn med sinni kyntegund, 16. kattugluna, náttugluna, flódsetuna, 17. súluna, hræfugla, svartfuglinn, 18. storkinn, lækjarbudruna med sinni kyntegund, veidihoppuna og músarbródurinn; 19. og allir fuglar sem skrída skulu vera ydur óhreinir, og þér meigid ekki eta þá, 20. en hreinu fuglana meigid þér eta.

21. Þér skulud ekki eta neitt sjálfdaudt, þeim útlendu sem búa medal þín máttu géfa þad til ad eta, eda sel þad útlendíngum, því þú ert Drottni þínum Gudi helgad fólk; þú skalt ekki slátra kidinu medan þad sýgur módur sína.

22. Þú skalt árlega leggja frá tíunda partinn af þínu korni, og þeim ársgróda, sem þér bætist af økrum þínum, 23. og þetta skaltú sídan eta frammi fyrir Drottni þínum Gudi á þeim stad sem hann mun útvelja sér til íbúdar, tíundirnar af korni þínu, víni og vidsmjøri, og frumburdina af nautum þínum og saudfé, svo þú meigir læra ad óttast þinn Gud alla þína æfidaga. 24. En þegar vegurinn er þér oflángur, og sá stadur sem Drottinn Gud þinn hefir útvalid sér til íbúdar, er svo mjøg í fjarska vid þig, ad þú getur ekki komid þángad tíundum þínum, einkanlega þared Drottinn Gud mun blessa þig, 25. þá máttu láta þad fyrir peninga úti hønd, og far svo med þá til þess stadar sem Drottinn þinn Gud hefir útvalid sér, 26. og kaup þar aptur fyrir þá sømu penínga hvad sem þig helst gyrnir, hvørt heldur naut, saudi, vín, áfeingan drykk, eda hvad annad sem þig lystir, og neyt þess í þeim sama stad frammi fyrir Drottni þínum Gudi, og gled þig svo sjálfur med heimilisfólki þínu.

27. En þá Levíta, sem eru innanborgar med þér, skaltú ekki setja hjá, því þeir hafa aungva hlutdeild edur eigindóm med þér. 28. Þridja hvørt ár skaltú leggja frá alla tíund af inntekt þinni þad árid, þad skaltú geyma í borginni, 29. skal svo Levítinn, sem aungva hlutdeild edur eigindóm hefir med þér, sá útlendi og føðurlausi og ekkjan sem er innanborgar med þér, koma þángad og eta sig mett; fyrir þad mun

Drottinn þinn Gud blessa þig í øllum þínum handafla og útvegum.

## 15. Kapítuli.

Uppgjøf á skuldum sjøunda hvort ár.

1. Við enda sjøunda hvørs árs skaltú géfa upp skuldir, 2. en þeirri uppgjøf er svo varid: hvør sem hefir lánad sínum náúnga nokkud skal géfa honum þad upp, og krefja ekki náúnga sinn, eda sinn bródur því hann eignar uppgjøfina Drottni; 3. af útlendíngnum máttu krefja skuldar þinnar, en landa þínum skaltú géfa hana upp nema svo sé ad hann sé ekki fátækur, 4. þvíad Drottinn mun blessa þig mjøg í því landinu sem hann géfur þér til eignar og umráda; 5. þó med því móti ad þú einúngis hlýdir raustu Drottins þíns Guds, og haldir øll þessi bodord, sem eg býd þér í dag ad breita eptir, 6. þvíad Drottinn þinn Gud mun blessa þig, einsog hann hefir heitid þér, svo þú munt géta lánad mørgum þjódum, en skalt ei þurfa ad taka lán hjá ødrum, þú munt drottna yfir mørgum þjódum, en einginn skal drottna yfir þér. 7. Ef nokkur af þínum brædrum er fátækur í einhvørri borg i landi þínu, sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér, þá skaltu ei forherda þitt hjarta edur apturloka þinni hendi fyrir þínum fátækum landa; 8. heldur skaltu uppljúka þinni hendi fyrir honum, og lána honum eptir því sem hann hefir børf á. 9. Vara þig vid því ad þar sé nokkur íllur þánki í þínu hjarta, sem segi: nú lídur undir sjøunda árid, sem er ár uppgjafarinnar, og lýtir þú svo óblídlega til þíns fátæka bródurs og géfir honum ekkért — þá mun hann kvarta yfir þér vid Drottinn, og mun þad verda þér ad synd; 10. heldur skaltu géfa honum, og sjá ekki eptir því sem þú géfur honum, því þarfyrir mun Drottinn þinn Gud blessa þig í øllum þínum verkum, og øllu sem þú tekur þér fyrir hendur. 11. Ætíd munu fátækir vera til í landinu, því býd eg þér og segi, ad þú skulir uppljúka þinni hendi fyrir þínum bródur, sem er fátækur og þurfandi í landi þínu.

12. Ef þér er seldur landi þinn hebreskur madur, kall eda kona, þá þjóni þér í 6 ár, þad sjøunda árid skaltu sleppa honum og géfa hann lausann, 13. og þegar þú lætur hann frá þér lausann, þá skaltu ekki láta hann fara tómhendtann; 14. heldur skaltu géfa honum af þínu saudfé, af þínu korni og þínu víni; eptir því sem Drottinn hefir blessad þig, skaltu géfa honum, 15. og minstú þess ad þú hefir verid þræll í Egyptalandi, og ad Drottinn þinn Gud frelsadi þig þadan, þessvegna legg eg þetta fyrir þig í dag. 16. En segi hann þá vid þig: Eg vil ekki skilja vid þig, þvíad mér er vel vid þig og þína — þar honum fellur vel hjá þér — 17. þá tak al og stíng í gégnum eyrad á honum upp vid dyrnar, og lát hann upp þadan vera þinn þjónustumann; eins skaltú fara med þína ambátt; (Exod. 21, 6.) 18. Lát þér ekki fallast um þad, þó þú eigir ad láta hann lausann, því hann hefir þjónad þér um 6 ár, sem tvígyldur vinnumadur, og Drottinn þinn Gud mun blessa þig í øllu sem þú gjørir.

19. Allan frumburd af kúm og saudfé, sem er kallkyns, skaltu helga Drottni þínum Gudi; frumborid naut skaltu ekki þrælka, og ekki klippa ullina af frumburdi saudfjárins. 20. Heldur skaltu neyta þeirra árlega frammi fyrir Drottni þínum Gudi, þú sjálfur og heimilisfólk þitt í

---

V. 18. Þrællinn var keyptur fyrir helfing af því sem verkamadurinn, auk fædisins, fékk í kaup um 6 ára tíma; húsbóndinn græddi þannig á þrælnum, sem var hjá honum í 6 ár, helfing af því sem hann hefdi mátt géfa ødrum frjálsum, þessvegna var sanngjarnlegt ad þrælnum væri gjørt eitthvad gott, þegar hann fór frá húsbóndanum og hafdi annars verid honum trúr.

þeim stad sem Drottinn útvelur; 21. en ef lýti eru á því nokkur, t. d. ef það er halt eda blindt, eda hefir nokkur stórlýti, þá skaltu ekki offra því Drottni þínum Gudi, 22. heldur skaltú eta það heima, hvørt sem þú ert hreinn eda óhreinn med sama hætti eins og rádýr eda hjørt; en et ekki blódid úr því, hell því út eins og vatni.

## 16. Kapítuli.

Um stórhátídir á hvørju ári.

1. Þú skalt hyggja ad mánudinum Abíb, ad þú haldir þá Drottni þínum Gudi páskahátídina, þvíad á þessum mänudi Abíb leiddi Drottinn þinn Gud þig á náttarþeli útúr Egyptalandi. 2. Og þú skalt offra Drottni þínum Gudi páskalambi, nautum og saudum, á þeim stad sem Drottinn mun útvelja sér til íbúdar. 3. Þú skalt ekkért sýrt eta á þessari hátíd, heldur skaltu eta ósýrt braud harmanna, til endurminníngar um harma edur neyd þína í Egyptalandi, í 7 daga, því þú flýdir í ofbodi úr Egyptalandi, þess vegna skal þér alla þína æfi minnistædur sá dagur, þegar þú fórst úr Egyptalandi; 4. það á ekki ad finnast neitt súrbraud innan allra þinna landamerkja í þessa 7 daga, og af því kjøti sem var slátrad um kvøldid þann fyrsta dag á ekkért ad verda næturgamalt. 5. Þá mätt ekki slátra páskalambinu í hvørri borg sem vera skal af þeim sem Drottinn þinn Gud hefir géfid þér, 6. heldur áttu í þeim stad, sem Drottinn þinn Gud mun velja sér til íbúdar, ad slätra páskalambinu ad kvøldi dags, um sólarlagsbil, um sama leitid sem þú fórst útúr Egyptalandi; 7. þar skaltu steikja það og eta á þeim stad sem Drottinn þinn Gud mun velja sér, og svo morguninn eptir snúa heimíleid. 8. Sex daga skaltu eta ósýrt braud, á sjøunda deginum er samkomufundur Drottins þíns Guds, þá mättu ekkért vinna. 9. Sjø vikur skaltu reikna, og skalt byrja ad telja tímann frá því ad sigdin fyrst var borin ad korninu *), 10. þá skaltu halda Drottni þínum vikuhátíd og lát vid hann af hendi rakna sjálfviljugar gjafir, eptir því sem hann hefir blessad þig. 11. Og þú skalt vera gladur frammi fyrir Drottni þínum Gudi, bædi sjálfur, sonur þinn og dóttir og líka húskall þinn og ambátt og Levítinn, sem er innanborgar med þér, útlendíngurinn, fødurleysínginn og ekkjan sem er hjá þér, á þeim stad sem Drottinn þinn Gud hefir valid sér til íbúdar. 12. Því þú átt ad láta þig reka minni til þess ad þú líka varst þræll í Egyptalandi, þess vegna skaltu vel halda þessi bodord og breita eptir þeim.

13. Þú skalt halda Laufskálahátíd í 7 daga, þegar þú ert búinn ad hyrda allt korn þitt og vín, 14. og þú skalt gjøra þig gladann á þeirri hátíd med sonum þínum og dætrum, húskøllum og ambättum, Levítum, útlendíngum, fødurleysíngjum, og ekkjum, sem eru í sømu borg og þú. 15. Í sjø daga skaltu halda Drottni þínum Gudi hätídina í þeim stad sem Drottinn mun velja sér; hann mun blessa þig í øllum þínum útvegum og allri þinni alvinnu, þess vegna skaltu vera gladur.

16. Þrisvarsinnum á ári hvørju skulu allir á medal þín, sem eru í kallegg mæta fyrir Drottni þínum Gudi á þeim stad sem hann mun velja sér, nl. á ósýrdra brauda hátídinni, á vikuhaldshátídinni og á laufskálahátídinni, en einginn má þar mæta fyrir Drottni tómhendtur, 17. heldur hvør eptir því sem hann hefir efni á, eptir þeirri blessan sem Drottinn þinn Gud hefir honum veitt— 18. dómara og valdstjórnarmenn skaltú tilsetja í øllum þínum borgarhlidum **) sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér hjá øll-

*) Sjá hérum Lev. 23, 15. flg. **) Þau voru þíngstød hjá Gydingum.

um kynkvíslum, til ad halda uppi løgum og rétti medal fólksins.

19. Þú skalt ekki halda réttinum, ekki fara í manngreinarálit, og ekki þiggja gjafir, því gjafirnar blinda augun jafnvel á vitrum mønnum, og umhverfa málefnum þeirra saklausu; 20. réttlæti, réttlæti skaltu framfylgja, svo þú meigir lifa, og eignast þad landid sem Drottinn þinn Gud mun gefa þér. 21. Þú skalt ekki planta lund af nokkurslags trjám hjá altari Drottins þíns Guds, þú skalt ei heldur reisa upp neina mindarstólpa, því þetta er Drottni þínum Gudi móti gedi.

## 17. Kapítuli.

Um offur, afgudadýrkun og hvornig Kóng skal velja.

1. Þú skalt ekki offra Drottni þínum Gudi nokkru því, nauti eda saud, sem hefur nokkur lýti edur galla á sér, því þad er vidurstigd Drottni Gudi þínum, 2. Þegar fundinn verdur nokkur madur, kall eda kona, innan þeirra stada sem Drottinn þinn Gud mun gefa þér, sá ed breitir svo illa í augum Drottins þíns Guds, ad hann tradkar hans sáttmála og gefur sig til ad þjóna annarlegum gudum og tilbidur þá, 3. hvørt sem þad er sólin, túnglid, eda nokkud annad af himinsins herskara, sem eg hafdi ekki bodid, 4. og verdi þér sagt frá þessu, og þú komist ad því, skaltu vandlega halda spurn fyrir slíku, og ef þú verdur þess var ad slík svívyrdíng er vissulega framin í Ísrael, 5. þá skaltu láta þann kall eda konu, sem framid hefir slíkt ódædi, leida útaf borgarhlidunum og lemja þar med grjóti til heljar.

6. Eptir tveggja edur þriggja vitnisburdi skal sá deya, sem fyrir daudasøk er hafdur, en einginn skal lífid missa fyrir eins manns framburd, 7. hønd vitnanna skal vera sú fyrsta til ad vega ad honum, og sídan hønd alls lýdsins, þannig áttu ad skilja vid þig þann vonda.

8. En ef eitthvørt málefni kémur fyrir, sem þér er ofvaxid ad dæma í, svo sem manndrápsmál, réttarmál, skémdarmál eda hvad annad málefni sem uppkémur í borgum þínum, þá skaltu bregda vid og fara til þess stadar sem Drottinn þinn Gud valdi; 9. skaltu þar gánga fyrir prestana og Levítana, og þann dómara sem þá er, þá skaltú spyrja, og munu þeir segja þér dóminn, 10. og skaltu fylgja því atkvædi sem þeir gefa þér á þeim stad sem Drottinn hefir valid sér, og þú skalt þess gjæta, ad gjøra allt eins og þeir hafa fyrir þig lagt. 11. Eptir því løgmáli sem þeir kenna þér, og eptír því dóms atkvædi sem þeir segja þér, skaltu þannig breita, ad ei sé afvikid, hvørki til hægri né vinstri. 12. En ef nokkur madur er svo bíræfinn, ad hann vill ekki hlýda prestinum, sem stendur þar í embætti Drottins þíns Guds, edur dómaranum, sá skal deya, og þér skulud taka þann vonda úr Ísrael, 13. svo ad almenníngur verdi hræddur, þegar hann heyrir þetta, og komi ei framar uppá slíka ofdirfsku.

14. Þegar þú kémur inní þad landid, sem Drottinn þinn Gud mun gefa þér, og ert setstur þar ad eign þinni, og segir: Eg vil setja Kóng yfir mig, eins og allar adrar þjódir sem eru í kríngum mig, 15. þá skaltu setja þann til Kóngs yfir þig, sem Drottinn þinn Gud mun útvelja, en einhvørn af brædrum þínum verdur þú ad setja til Kóngs yfir þig, því þú mátt ekki þar til setja neinn útlendíng, sem ekki er þinn bródir, 16. en ekki má hann ala marga vígplesta, og ekki má hann, þó hann hafi marga hesta, leida fólkid aptur í Egyptaland, af því Drottinn hefir sagt ydur, ad þér skulud ekki hédanífrá fara um þenna veg þángad aptur. 17. Hann má ei heldur festa sér margar konur, svo hann falli ekki frá Drottni, ekki má hann heldur draga saman mikid gull og silfur; 18. þegar hann nú er setstur í hásæti kóngdómsins, þá skal

hann fá þetta løgmál hjá prestunum og Levítunum, og láta skrifa þad sér í bók; 19. hún skal vera hjá honum, og hann skal lesa í henni alla sína æfi, svo hann géti lært ad óttast Drottinn sinn Gud, ad hlýda þessu løgmáli og halda vid þessa setnínga. 20. Hann skal ekki metnast í hjarta sínu yfir sína brædur, og ekki víkja frá bodordunum, hvørki til hægri né vinstri, svo hann meigi verda lánggjæfur í kóngsstjórninni, bædi sjálfur hann og børn hans í Ísrael.

## 18. Kapítuli.

Um presta, Levíta og Spámenn.

1. Prestarnir og Levítarnir og allur Leví kynþáttur skulu aungva hlutdeild edur eigindóm hafa med Ísraelítum, því þeir skulu lifa á fórnum Drottins og hans eigindómi, 2. þeir skulu því einga hlutdeild hafa medal brædra sinna, því ad Drottinn er þeirra arfleifd, eins og hann hefir þeim heitid. 3. En prestarnir skulu hafa þenna rétt af fólkinu: ad hvør madur sem offrar, hvørt heldur uxa edur saud, þá skal géfa prestinum bóginn, báda kjammana og lakan; 4. sømuleidis fyrsta gródan af þínu korni, víni og vidsmjøri, og þá fyrstu ullina sem þú tekur af þínu saudfé, 5. því ad Drottinn þinn Gud hefir útvalid hann af øllum þínum kynkvíslum til þess ad hann og synir hans alla tíma standi og þióni í nafni Drottins. 6. Ef Levítinn kémur út af einhvørri þinni borg í Ísrael, hvar hann ekki hafdi fast heimili, og kémur af eigin fýsn til þess stadar sem Drottinn hefir útvalid, þá skal hann þjóna í nafni Drottins síns Guds, 7. eins og allir Levítar, hans brædur gjøra, sem þá standa þar fyrir Drottni. 8. Hann skal hafa jafna hlutdeild matarins, ad því fráteknu sem hann á af seldri fødurleifd sinni.

9. Þegar þú ert kominn inní þad landid, sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér, þá skaltu ekki taka upp svívyrdíngar þess fólks, 10. svo ad einginn finnist hjá þér sem láti son sinn eda dóttur vada bál *), einginn sem fer med spádóma edur er dagveljari, ellegar tekur mark á fuglakvaki, 11. edur galdramadur eda særíngamadur, edur spásagnarmadur, eda teikna útleggjari, edur nokkur sem leitar frétta af framlidnum, 12. því hvør sem þvílíkt adhefst er Drottni andstyggilegur, og fyrir slíkar svívyrdíngar rak Drottinn þinn Gud þessar þjódir í burtu fyrir þér, 13. en þú skalt vera algjørr fyrir Drottni þínum Gudi. 14. Þessar þjódir, sem þú munt leggja undir þig, hlýda dagveljurum og spásagnarmønnum, en þetta lídur Drottinn þinn Gud þér ekki; 15. Drottinn þinn Gud mun uppvekja þér spámann, kominn af þínu fólki, líkann mér, honum skulud þér gégna, eins og þú badst Drottinn þinn Gud á Hóreb, 16. á þeim degi sem vér vorum þar samankomnir og þú sagdir: eigi vildi eg leingur þurfa ad heyra raustina Drottins míns Guds, eda optar ad sjá þann mikla eldinn, svo eg deyi ekki, 17. þá sagdi Drottinn vid mig: vel farast þeim ord. 18. Eg vil uppvekja þeim spámann af løndum þeirra, líkann þér, og eg vil leggja honum ord í munn, hann skal segja þeim allt sem eg býd honum, 19. og hvør sem ekki gégnir ordum mínum, þeim er hann mun flytja í mínu nafni, sá skal sjálfann sig fyrirhitta.

20. Ef einhvør spámadur dyrfist ad tala í mínu nafni þad eitthvad sem eg ekki lagdi fyrir hann, eda sem spáir í annarlegra guda nafni, sá spámadur skal deya.

21. En skyldir þú hugsa med sjálfum þér, hvørnig gét eg þekkt úr þau ordin sem Drottinn hafi ekki talad? 22. (Þá vit) ad þegar spámadurinn talar í nafni Drottins, og þad rætist ekki eda kémur ekki framm, þá hefir

*) Eins og heidíngjar, sem Molok til æru, létu børn sín gánga gégnum eld þar til þau dóu.

Drottinn ekki mælt þeim orðum heldur hefir
spámaðurinn talað slíkt af óskammfeilni sinni;
þú þarft ekki að hræðast hann.

## 19. Kapítuli.

Griðastaðir. Landamerki. Vottar.

1. Þegar Drottinn þinn Guð er búinn að
afmá þær þjóðir, hvørra lønd hann ætlar að
géfa þér til eignar, og þá þér eruð setstir að í
borgum þeirra og húsum, 2. þá skaltu taka frá
þrjár borgir í því landinu sem Drottinn þinn
Guð mun géfa þér til eignar. 3. Þú skalt
láta greiðan veg liggja til þeirra, og landinu
sem Drottinn þinn Guð géfur þér, skaltu skipta
í þrjá hluti, og skal hvør sem mann hefur
veigið meiga flýa þángað. 4. En sá sem
víg framði, og þángað flýði, má samt svo fram-
arlega halda lífi, að hann vóg náúnga sinn
óviljandi, og bar ekki hatur til hans að und-
anførnu, 5. til dæmis að taka: ef maður fer með
øðrum í skóg til að høggva við, og hann reiðir
upp øxina til að høggva tréð, en øxin hrýtur af
sképtinu, og kémur á náúnga hans, svo hann
fær af bana, þá má hann flýa til einhvørra
þessara borga, og forða svo lífi sínu, svo að
ekki veiti blóðhegnarinn vegandanum eptirfør,
6. meðan honum er heitast um hjartaræturnar,
nái honum ef vegur er lángur, og slái síðan í hel,
þó hann sé ekki dauðasekur, þegar hann bar ekkért
hatur til mannsins að undanførnu. 7. Þess vegna
býð eg þér að þú takir þessar þrjár borgir frá.
8. En ef Drottinn þinn Guð færir út landa-
merki þín, eins og hann hefir svarið forfeðrum
þínum, og géfur þér allt það land sem hann
lofaði þeim. 9. Með því skilyrði þú héldir øll
þessi boðorð, og breittir eptir því sem eg nú
legg fyrir þig, sem er: að þú elskir Drottinn
þinn Guð og gángir á hans vegum alla þína
æfi, þá skaltu enn bæta þrem borgum við þessar
þrjár, 10. svo ekki verði úthellt saklausu blóði í
því landi sem Drottinn þinn Guð géfur þér,
né verðir þú sekur í slíku blóði. 11. En ef
nokkur hefir heipt á øðrum, og situr um hann,
veitist síðan að honum, og slær til bana, og
flýr síðan til einhvørra þessara borga, 12. þá
skulu øldúngarnir í staðnum þar sem hann átti
heima, senda þángað, og láta hafa hann í
burtu þaðan, og selja í hendur blóðhegnaranum,
til lífláts, 13. þín augu skulu ekki sjá aumur á
honum, þú skalt hreinsa Ísrael af saklausra
manna blóði, svo þér géti geingið vel.

14. Þú skalt ekki færa saman landamerki
náúnga þíns þau sem eldri menn hafa tilsett í
því erfðalandi þínu sem Drottinn þinn Guð
mun géfa þér til eignar.

15. Ekki skal eitt vitni gylda á móti nokkr-
um í neinskonar misgjørníngi eður glæp sem ein-
hvørjum kann að verða, heldur skal því að eins
gyldur framburður að tvø eður þrjú vitni beri.

16. En rísi ljúgvottur móti einhvørjum og
beri á hann illvirki, 17. þá skulu þeir báðir, sem
kjærumálið eigu saman, mæta fyrir Drottni,
frammi fyrir prestunum og dómurunum, sem þá
eru í þann tíma; skulu dómararnir innvirðu-
lega ransaka málið, og ef þá reynist að hann
hafi borið falskan vitnisburð móti sínum bróð-
ur, 18. þá skulu þeir gjøra svo við hann, sem
hann hafði hugsað að gjøra við bróður sinn, og
losið yður þannig við þann vonda, svo þeir
verði skélkaðir sem þetta heyra, 19. og hætti
eptir það að fremja slík illvirki yðar á meðal,
20. þitt auga sjái ekki aumur á honum, líf komi
fyrir líf, auga fyrir auga, tønn fyrir tønn,
hønd fyrir hønd, fótur fyrir fót.

## 20. Kapítuli.

Hernaðar reglur.

1. Þegar þú leggur til orrustu við óvini
þína, og þú sjer að það fólk hefir fleiri víg-
hesta og vagna enn þú, þá skaltu ekki hræðast

þá að heldur, því að sá Drottinn þinn Guð, sem útleiddi þig af Egyptalandi, er með þér; 2. Þegar nú komið er að því að bardagann skuli byrja, þá skal presturinn gêfa sig framm og tala svo til fólksins, segjandi: 3. heyr þú Ísra= el! í dag eigið þér að leggja til orrustu móti óvinum yðar, látið ei hugfallast, hræðist ekki, skélfist ekki, og kvíðið ekki fyrir þeim; því að Drottinn yðar Guð geingur á undan yður, 4. mun hann berjast fyrir yður við óvini yðar og frelsa yður.

5. Hershöfðíngjarnir skulu einnig tala fyrir liðinu, segjandi: hvør sá maður sem hefir byggt sér nýtt hús, en hefir ekki vígt það, þá fari heim aptur, svo ekki falli hann í stríðinu, og verði svo annar til að vígja það. 6. Hvør sem plantað hefir víngarð, og hefir ekki enn þá haft neinn ágóða af honum, snúi aptur heim til sín, svo hann falli ekki í bardaganum, og einhvør annar verði til að njóta ágóðans af honum.

7. Hvør sem hefir fastnað sér konu, og hefir ekki enn þá tekið saman við hana, snúi heim til sín aptur, svo hann falli ekki í stríðinu, og ein= hvør annar taki saman við hana. 8. Enn fremur skulu hershöfðíngjarnir tala til fólksins, og segja: hvør maður sem er hræddur og hug= blauður, fari og snúi heim aptur, svo að hann gjöri ei aðra hrædda af sér.

9. En þegar hershöfðíngjarnir hafa lokið þessari ræðu til fólksins skulu þeir velja fyrir= liða hersins og setja þá yfir liðið.

10. Þegar þú ræðst að borg nokkurri, til að herja á hana, þá skaltú fyrst bjóða þeim grið, 11. og ef þeir veita friðsamleg andsvør, og ljúka upp fyrir þér, þá skal allur lýðurinn sem þar finnst inni, vera þér skattskyldur og undirgêfinn. 12. En vilji þeir ekki semja frið og leggi til orrustu við þig, þá gjör borginni umsátur, 13. og ef Drottinn þinn Guð gêfur hana í hendur þínar, þá skaltu með sverðseggjum íhel slá allt karlkyns sem þar er inni. 14. En konur, børn og búsmala og sérhvað annað sem er í borg= inni, það er: allt herfáng, máttu taka undir sjálfann þig, og þú mátt þannig neyta alls herfángs óvina þinna, hvørja Drottinn þinn Guð hefir gêfið á þitt vald. 15. Þannig áttu að fara með allar borgir sem eru mjøg í fjarska við þig, og ekki eru af borgum þessara þjóða, 16. en í borgum þessara þjóða sem Drott= inn þinn Guð ætlar að gêfa þér til eignar, skaltu einga skêpnu láta lífi halda, 17. skaltu þeim øllum gjøreyða, nefnilega: Hetítum, Amorítum, Kananítum, Feresítum, Hevítum, og Jebúsítum, eins og Drottinn þinn Guð hefir þér fyrirlagt, 18. svo þeir ekki kénni yður að taka upp eptir sér alla þá svívirðilegu dýrkun, sem þeir veita sín= um goðum, og þér verðið þannig sekir við yðar Guð.

19. Þegar þú leingi mátt liggja fyrir ein= hvørri borg og herja á hana til að ná henni undir þig, þá skaltu ekki skémma hennar aldin= tré með því að bera að þeim exi, því þú gêtur etið af þeim aldinin, þess vegna skaltu ekki uppræta þau, því hvørt munu tré merkurinnar manneskjur, er taki sig upp á móti þér í um= sátrinu? 20. En þau tré, sem þú veitst ekki eru matartré, þau máttu skémma og uppræta og byggja af þeim hervirki á móti borginni sem á í stríðinu við þig, þángað til þú gêtur náð henni.

## 21. Kapítuli.

Um þann sem einginn veit hvør vegið hefir, um herteкna konu, frumgétníngsrétt, þrjótan son og heingðan mann.

1. Ef maður finnst veginn í því landi, sem Drottinn þinn Guð mun gêfa þér til eignar, og hann liggur á víðavángi, en einginn veit hvør hann hefir vegið, 2. þá skulu øldúngar þín= ir og dómendur fara þángað út og mæla veg=

inn til borganna sem liggja nærstar í kríngum þann vegna; 3. en hvør borgin, sem næst liggur hinum vegna, þá skulu øldúngarnir í þeirri borg taka kvígu af hjørdinni, sem ekki hefir verid þrælkud, og ei hefir ardinn dregid, 4. og skulu þeir leida hana ad sírennandi læk nidrí dal, sem hvørki verdur yrktur né sádur, og þar vid lækinn skulu þeir høggva af henni høfudid; 5. þá skulu gánga þarad prestarnir, synir Leví, — því þá útvaldi Drottinn þinn Gud, ad þeir skyldu þjóna sér, og blessa í sínu nafni, og skal leita þeirra atkvæda í øllum deilum og stórmálum — 6. og allir øldúngar í þeirri borg sem næstir eru hinum vegna, skulu þvo hendur sínar yfir kvígunni, sem hálshøggin var vid lækinn, 7. og skulu svara svofeldum ordum: Vorar hendur hafa ekki úthelt þessu blódi, og augu vor hafa ekki heldur sjed þad, 8. vertu Drottinn miskunsamur þínu fólki Israel sem þú hefir útleist, og lát þá ei gjalda þessa saklausa blóds sem úthelt er ámedal þíns fólks Israels, heldur fyrirgéf þeim víg þetta. 9. Þannig skaltu fría þig vid þad saklausa blód hjá þér og gjøra þad rétt er í augum Drottins.

10. Ef þú leggur út í leidángur móti óvinum þínum og Drottinn þinn Gud géfur þá í þínar hendur, svo þú leidir þá med þér hertekna, 11. og þú sjer medal hinna herteknu konu, sem er fríd sýnum, og leggst á hugi vid hana, svo þú vildir taka hana þér til eiginkonu, 12. þá haf hana inni þitt hús, en hún raki høfud sitt og láti skéra sér neglur; 13. hún fari úr føtum þeim sem hún var hertekin í, dvelji sídan í húsi þínu, og syrgi fødur sinn og módur sína einn mánadartíma, sídan máttu taka saman vid hana og samsænga henni svosem konu þinni; 14. En falli svo ad þú hafir ei leingur þokka til hennar, þá skaltu láta hana fara þángad sem hún vill sjálf, ei máttu selja hana vid verdi, né gjøra hana ánauduga, fyrst þú hafdir lagst med henni.

15. Ef nokkur hefir tvær eiginkonur, eina sem hann elskar, og adra sem hann hatar, og bádar, bædi sú hann elskar og sú hann hatar, fæda honum syni, en svo vill til, ad sá frumgétni er med þeirri sem honum var í kala vid, 16. og nú kémur sá tími, ad hann skipti med sonum sínum, þá má hann ekki ætla syni þeirrar elskudu frumgétníngsréttinn, medan sonur ennar høtudu er enn á lífi, sem var sá frumgétni; 17. skal hann miklu fremur kannast vid son ennar høtudu sem sinn frumgétinn og géfa honum tvøfaldt af øllu sem hann á, þvíad hann er hans fyrsti kraptur og ber honum frumgétníngsrétturinn.

18. Ef nokkur hefir þrjótan son, óhlýdinn, sem ei vill gégna áminníngum fødur síns og módur, og sem ekki vill skipast ad heldur þó þau hyrti hann, 19. þá skal fadir hans og módir taka hann og fara med hann til øldúnga borgarinnar í borgarhlidid, 20. og segja vid øldúnga stadarins: þessi sonur okkar er þrjótur, óhlýdinn og vill ekki gégna okkar áminníngum, hann er svallari og vínsvelgur; 21. skulu þá allir innbyggjarar í stadnum grýta hann í hel; þannig skaltu skilja vid þig þann vonda á medal þín, svo ad allur Israel meigi þad frétta og óttast.

22. Þegar einhvør hefir framid þá synd, ad hann er dauda verdur fyrir, og er heingdur á gálga, 23. þá skal líkami hans ekki vera á gálganum næturlángt, heldur skal hann jarda samdægris, því sá er bølvadur af Gudi sem heingdur verdur, en þú mátt ekki saurga landid sem Drottinn þinn Gud hefir géfid þér ad arfi.

## 22. Kapítuli.

Um fundid góts, og ýmislegt vidvíkjandi lauslæti m. fl.

1. Þegar þú sjer naut edur saud bródur

V. 9. Þannig skaltu forlíkunarfórn færa fyrir saklauss manns líflát.

þíns á flæðíngi, þá skaltu ekki sneida hjá því, heldur reka þad aptur til bródur þíns. 2. En ef sá bródir er ekki í grend vid þig, og þú ert ekkért kunnugur honum, þá skaltu taka þad heim til þín og hafa hjá þér, þángadtil bródir þinn leitar þess og þú gétur feingid honum þad aptur; 3. sama áttu líka ad gjøra vid hans asna, klædi hans og sérhvørn hlut sem hann hefir tínt, því hvad sem tínist fyrir bródur þínum, og þú finnur, þá máttu ekki draga dulur á; 4. Ef þú sjer asna bródur þíns eda naut liggja afvelta á leid þinni, þá máttu ekki sneida hjá því, heldur skaltu reisa þad á fæturnar.

5. Ekki skal kona taka upp kallmannsbúníng, og ei skal kallmadur fara í kvennmanns føt, því Drottinn þinn Gud hefir andstygd á þeim sem þetta gjøra.

6. Þegar þú finnur fuglshreidur á leid þinni uppí tré nokkru, eda á jørdinni, med úngum í eda eggjum, og módirin liggur á úngunum eda eggjunum, þá máttu ei taka módirina ásamt med úngunum, 7. heldur skaltu sleppa módurinni, og taka svo til þín úngana, svo þú meigir verda lánsamur og lifa leingi.

8. Þegar þú byggir þér nýtt hús, þá gjør þar grindur allt umkríng uppá þakinu, svo þú ekki hladir blódi á þitt hús ef einhvør kynni ad detta ofanaf því.

9. Þú skalt ekki sá í víngard þinn margslags fræi, svo ekki falli helgi á allt sem í honum er, bædi plønturnar sem þú plantadir og ágóda víngardsins.

10. Þú skalt ekki erja med nauti og asna í sameiníngu. 11. Þú skalt ekki fara í þau føt sem gjørd eru af ull og líni tilsamans; 12. þú skalt búa þér til skúfa á øllum fjórum løfum skikkjunnar sem þú ert í.

13. Ef nokkur fær sér eiginkonu og eptir ad hann hefir legid hjá henni, fær óvild til hennar, 14. skuldar hana fyrir skémmilega breitni og kémur á hana íllu ordi, og segir: þessa konu tók eg mér, og þá eg lagdist med henni, fann eg hún var ekki meya; 15. þá skal fadir og módir þeirrar konu fara med meydómsmerki hennar til øldúnga stadarins í borgarhlidid; 16. skal þá fadir konunnar svo mæla til øldúnganna: dóttur mína gaf eg þessum manni til eiginkonu, en hann leggur óvild á hana, nú hefir hann hana fyrir skémmilegri søk og segir: 17. eg fann ekki dóttur þína ad vera hreina meyu, hér eru nú dóttur minnar meydómsmerki; um leid breidi hann út føtin í augsýn borgarinnar øldúnga; 18. þá skulu øldúngarnir taka manninn og refsa honum, 19. og gjøra honum í bætur hundrad sikla silfurs sem hann láti úti vid fødur konunnar, fyrir þad hann ófrægdi meyu í Israel, og hún skal vera kona hans, er hann aldrei upp þadan géti skilid vid. 20. En ef þad vóru sannmæli, ad hann fann hana ekki hreina meyu, 21. þá skulu þeir fara med stúlkuna ad húsdyrum fødur hennar, og bæarmenn skulu þar grýta hana til bana, af því hún drýgdi þvílíka skømm í Israel ad hórast í fødurgardi — og áttu ad afmá allt íllt þín á medal. 22. Ef sá finnst nokkur sem liggur hjá konu þeirri sem er ødrum gipt, þá skulu bædi deya, madurinn sem lá hjá konunni og konan, því þid eigid ad afmá allt íllt medal ydar.

23. Ef mey er einhvørjum føstnud, og kallmadur einhvør hittir hana í borginni, og legst med henni, 24. þá skulu þeir leida þau bædi útfyrir borgarhlidin og grýta þau til bana, stúlkuna vegna þess hún ekki kalladi, fyrst hún var inní borginni, og kallmanninn vegna þess hann lagdist med festarkonu annars manns, skulud þér þannig afmá medal ydar allt íllt.

25. Ef einhvør hittir trúlofada stúlku út á vídavángi, tekur hana med valdi og legst med

V. 9. Ei verdi gjørdt upptækt undir helgidóminn sbr. 3 Mós. b. 19, 19.

henni, þá skal madurinn ad eins deya sem med henni lagdist, 26. en til stúlkunnar skaltú ei leggja, því hún framdi þad ekkért sem dauda væri verdt, því þar stód eins á og þegar einhvør rís móti ødrum og slær hann í hel, og var þetta eins ad sínu leiti, 27. því þegar hann hitti stúlkuna á vídavángi, kalladi sú trúlofada stúlka ad vísu, en þar var einginn vid sem henni gjæti bjargad. 28. Þegar einhvør hittir stúlku sem ekki er trúlofud og tekur hana frillutaki, og einhvør geingur framm á þau, 29. þá skal sá sem smánadi hana greida fødur hennar fimtíu sikla silfurs, og verdi hún kona hans, og þared hann smánadi hana, þá skal hann aldrei meiga skilja hana vid sig upp þadan.

## 23. Kapítuli.

Hvad ei sæmi søfnudi Drottins.

1. Einginn má giftast stjúpu sinni né fletta upp ábreidu fødur síns. 2. Einginn edlismeiddur, eda géldíngur má vera í søfnudi Drottins. 3. Einginn skjækjuson má vera í søfnudi Drottins, og þó í tíunda ættlid sé má hann ei ad heldur takast þar inn. 4. Ammonítar og Móabítar skulu ei heldur takast inní søfnud Drottins, og þó í tíunda lid sé; þeir meiga þángad aldrei innkoma, 5. vegna þess þeir ekki færdu ydur mat né drykk, á vegin þegar þér fórud úr Egyptalandi, og þar á ofan keyptu Bíleam Beorsson af Petor í Mesópotamía til ad leggja óbænir yfir þig, en Drottinn þinn Gud vildi ei sinna Bíleam, en snéri óbænum hans í blessan, af því hann elskar þig; 6. þú skalt aldrei nokkrusinni láta þér annt um þeirra frid edur farsæld. 7. Þú skalt ekki forsmá Edomítana, því þeir eru þínir brædur, ei heldur Egyptska, því þú varst útlendíngur í þeirra landi; 8. afkomendur þeirra í þridja lid meiga takast inní søfnud Drottins.

9. Þá þú tekur þig upp úr herbúdunum móti óvinum þínum, þá skaltú vara þig vid øllum skémmilegum hlutum. 10. Ef nokkur medal ydar er ekki hreinn, vegna þess sem hann hefir hendt um nóttina, sá gángi út úr herbúdunum og komi ekki aptur inní þær, 11. fyrr enn undir kvøldid þá hann er búinn ad þvo sig í vatni, þá má hann eptir sólarlagid koma aptur inní herbúdirnar. 12. Þú skalt hafa þér vissan stad, fyrir utan herbúdirnar, þángad skaltú fara erinda þinna, 13. og þú skalt hafa lítin spada í tjørgum þínum og þegar þú vilt setja þig nidur, skaltú grafa med honum, en þegar þú hefir lokid þér af, skaltú hylja saurindin. 14. Því Drottinn þinn Gud er á gángi um herbúdir þínar til ad vernda þig og géfa óvini þína á þitt vald, þessvegna skulu herbúdir þínar vera heilagar, og ekkért vera ad sjá óþokkalegt ydar á medal, svo hann ekki fari í burtu frá ydur.

15. Þú skalt ekki selja þann þræl í hendur húsbónda sínum sem flúid hefur frá honum til þín, 16. hann skal setjast ad hjá þér í þeim stad sem hann sjálfur velur sér, í einhvørjum þínum borgum, sem honum lýtst best á, og þú mátt ekkért íllt leggja til hans.

17. Eingin af Israelsdætrum má vera skækja, og einginn af Israelssonum láta gjøra sér svívyrdíng.

18. Þú skalt ekki bera skjækjulaun né hundsverd inní hús Drottins þíns Guds, í því skini ad leysa þarmed heiti nokkurt, því Drottinn hefir andstygd á því hvørutveggi.

19. Þú skalt ekki okra af løndum þínum, hvørki á peníngum, mat né ødrum hlutum þeim sem út má okra; 20. af útlendum máttú okra, en ekki løndum þínum, svo ad Drottinn þinn Gud blessi þig í øllu sem þú tekur þér fyrir hendur í því landi sem þú ert á leidinni ad eignast. 21. Þegar þú hefir gjørt heiti

nokkurt Drottni þínum Gudi, þá lát ei verda
drátt á ad efna þad, þvíad Drottinn þinn
krefur þess af þér, og þú hefir af því synd;
22. en hafir þú aungu heitid, er þér eingin synd;
23. en hvad sem kémur framm af vørum þín-
um, þá skaltu efna, og svo gjøra sem þú
hétst Drottni Gudi þínum med eigin munni og
frjálsum vilja.

24. Þá þú kémur í víngard náúnga þíns,
þá máttu eta svo mørg vínber sem þú hefir
lyst á, þar til þú ert mettur, en ei máttu safna
þeim í kér þitt. 25. Ef þú geingur um korn-
akur náúnga þíns, þá máttu plokka axin med
hendinni, en ei máttu veifa sigdinni yfir korn-
akur hans.

## 24. Kapítuli.

Um hjónabønd, vedsetníngar og fl.

1. Ef einhvør fær sér konu og hefir sam-
rekkt henni, en hún finnur ekki sídan nád fyrir
hans augum fyrir einhvørs óþokka sakir, þá
skal hann meiga géfa henni skilnadarskrá, fá
henni hana í hendur, og láta hana svo fara
af heimili sínu. 2. Þegar hún er geingin burt
af bænum, og farin alveg í burtu, en giftist
ødrum manni, og sá annar madur fær líka and-
stygd á henni, 3. géfur henni skilnadarskrá,
fær henni þad í hendur, og lætur hana svo
fara af heimili sínu, ellegar ef svo ber undir,
ad deyr sá seinni madur sem hana tók til eigin-
konu, 4. þá má ekki hennar fyrri madur, sem
hafdi skilid sig vid hana, taka hana aptur sér til
eiginkonu, af því hún er ordin óhrein, því slíkt
er andstygd fyrir Drottni, svo þú ei flekkir þad
land, sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér
ad arfi.

5. Þegar einhvør er nýgiftur, þá skal hann
ei fara í hernad, og eingin þýngsli skulu á hann
leggjast, skal hann vera frjáls madur á heimili sínu
heilt ár, og gledja sig med konu þeirri sem
hann hefir tekid sér.

6. Þú mátt ekki taka í pant yfir- né und-
irkvørn, því þad væri ad taka í pant lífs-
bjørg annars.

7. Ef einhvør verdur fundinn ad því, ad
hafa stolid nokkrum af brædrum sínum Ísraels
sonum, og annadhvørt sjálfur heldur honum
ánaudugum, eda selur hann mansali, þá skal
sá þjófur deya, og ber ydur ad afmá medal
ydar slíka vondsku.

8. Gjæt þín í spítelsku- veikindum, ad þú
grandgjæfilega adgjætir og gjørir allt þad sem
prestarnir og Levítarnir leggja fyrir þig, skulud
þér þad allt halda og gjøra sem þeir skipa yd-
ur; 9. láttu þér minnisstædt þad sem Drott-
inn þinn Gud gjørdi vid hana Maríu á leid-
inni, þegar þér héldud útaf Egyptalandi.

10. Ef þú hefir lánad náúnga þínum eitt-
hvad, hvad sem þad svo er, þá máttu ekki
gánga inní hans hús til ad taka út af honum
pant, 11. heldur skaltu stadnæmast fyrir utan
dyrnar, en sá sem þú hafdir lánad, beri pantinn út
til þín; 12. en sé madurinn øreigi þá skaltu
ekki gánga til svefns med pant hans, 13.
heldur skaltu færa honum pantinn aptur fyrir
sólarlagid, svo hann géti sofid í sínum eigin
rúmfötum *) mun hann þá blessa yfir þig, og
þess mun Drottinn Gud þinn láta þig njóta.

14. Þú skalt ekki refjast um kaup þess sem
er fátækur og þurfandi, hvørt sem hann er af
løndum þínum, eda útlendum sem eru í landinu
innan borga þinna, 15. heldur skaltú greida
honum sitt kaup á hvørjum degi, ádur enn sólin
geingur undir, því hann er fátækur og ætladi
uppá þad, svo hann hrópi ei til Drottins móti
þér, og verdi þér svo þetta til syndar reiknad.

16. Fedurnir skulu ekki deya fyrir børn sín,

V. 9. Núm. 12, 9. V. 13. (* Sjá Ex. 22, 25.

og ekki børnin fyrir fedurnar, heldur skal hvør deya fyrir sína eigin misgjørd.

17. Þú skalt ei halla rétti hins útlenda og fødurlausa, og þú skalt ekki taka í pant ekkjunnar fatnad; 18. því þér skal minnisstædt ad þú varst þræll í Egyptalandi, og Drottinn þinn Gud frelsadi þig þadan; þess vegna skipa eg þér ad gjøra þetta.

19. Þegar þú hefir lokid kornskurdi á akri þínum, og þú hefir gleymt einu bindini útá akrinum, þá skaltu ekki snúa aptur til ad sækja þad, láttu heldur hinn útlenda, ekkjuna og þann fødurlausa eiga þad, svo ad Drottinn þinn Gud blessi þig í allri þinni atvinnu.

20. Þegar þú hefir barid ávextina af þínu olíutré, þá skaltú ei gjøra þar eptirleit, heldur skal sá framandi, ekkjan og sá fødurlausi eiga þad. 21. Þegar þú hefir skorid upp vínberin í víngardi þínum, þá skaltu ekki plokka hann aptur, heldur skal sá útlendi, ekkjan og sá fødurlausi eiga þad; 22. lát þér minnisstædt ad þú varst þræll í Egyptalandi, því skipa eg þér ad gjøra þetta.

## 25. Kapítuli.

Um líkamlega refsíng. Bródir skyldur ad eiga barnlausa ekkju eptir bródur sinn. Rétt vog og mælir.

1. Þegar ágreiníngur verdur manna í millum, þá skulu þeir mæta á þíngi, og skal þar skéra úr málum þeirra, sá saklausi á þar ad fríast, en hinn seki ad sakfellast; 2. ef hinn seki hefir unnid til refsíngar, þá skal dómarinn láta leggja hann nidur í sinni vidurvist, og slá hann eins mørgum høggum, og sambýdur hans misgjørníng; 3. hann má leggja á hann fjørutígi høgg, en ekki fleiri, svo ei verdi geingid framm af honum, og bródir þinn verdi meiddur og aumkunarlega útlítandi.

V. 20. Menn brúkudu til þess kepp edur kefli.

4. Þú skalt ekki mýla nautid medan þad þreskir. 5. Þegar brædur búa til samans, og einn þeirra deyr barnlaus, þá skal kona þess framlidna ekki taka neinum manni úrættis, heldur skal hennar eigin mágur liggja hjá henni, taka hana sér til konu og eignast hana; 6. þann fyrsta son, sem hún fædir, skal hann láta bera nafn síns framlidna bródurs, svo ad hans nafn upprætist ekki úr Ísrael. 7. En ef madurinn vill ekki taka bródurkonu sína til eiginkonu, þá skal hans bródurkona gánga upp í borgarhlidin framm fyrir øldúngana og segja: mágur minn vill ekki uppvekja sínum bródur nafn í Ísrael, og vill ekki eiga mig; øldúngar borgarinnar skulu þá kalla hann fyrir og hafa tal af honum. 8. Ef hann þá segir þar frammi fyrir þeim: eg vil ekki eiga hana, 9. þá gángi bródurkona hans þar ad honum í nærveru øldúnganna, taki skóinn af fætinum á honum, hræki framaní hann, og fari þessum ordum: svona á ad fara med hvørn þann sem ekki vill uppbyggja síns brodurs hús, 10. og hann skal hafa þad auknefni í Ísrael, ad ætt hans sé kénnd vid Berfót.

11. Þegar tveir menn deila illdeilum innbyrdis og kona annarshvørs hleypur ad, og vill hjálpa manni sínum úr høndunum á þeim sem slær hann, og réttir høndinni til, og grípur um hans leyndarlim, 12. þá skaltu høggva af henni hendina, og þitt auga skal ekki sjá aumur á henni.

13. Þú skalt ekki hafa í þínum sjódi tvennslags vogir, adra stærri og adra minni; 14. þú skalt ei heldur hafa í þínu húsi tvennslags mæliaska, annan stærri og annan minni. 15. Þú skalt hafa eina gylda og rétta vog, einn gyldan og réttan mæliask svo þú meigir leingi lifa í því landinu sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér, 16. því Drottinn þinn Gud hefir andstygd

á øllum, sem þessa edur adra rángsleitni í frammi hafa.

17. Láttu þig reka minni til, hvørnig Amalekítar fóru med þig á leidinni þegar þú fórst útúr Egyptalandi, 18. hvørnig þeir mættu þér á leidinni og slóu þá sem aptarstir fóru, sem voru ordnir þreyttir og fóru seinna, þegar þú varst ordinn bædi lúinn og dasadur, og þeir hræddust ekki Gud ad því.

19. Þegar nú Drottinn þinn Gud veitir þér nædi fyrir øllum þínum óvinum allt í kríngum þig í því landinu sem hann mun géfa þér til eignar, þá skaltú med øllu afmá minníng þeirra Amalekíta af jardarhnettinum — gleymdú því ekki!

## 26. Kapítuli.

Offur af frumgródanum. Tíundir.

1. Þegar þú ert kominn í þad land sem Drottinn þinn Gud mun géfa þér til eignar, ert búinn ad taka þad, og setstur þar ad, 2. þá skaltu taka þad fyrsta af øllum landsíns ávexti sem jørdin géfur af sér, sú sem Drottinn þinn Gud géfur þér, skaltú láta þad í kørfu og færa sídan til þess stadar, sem Drottinn Gud þinn mun útvelja sér sjálfum, til bústadar, 3. og þú skalt fara á fund vid þann kénnimann sem þá er og segja vid hann: eg medkénni í dag fyrir Drottni Gudi þínum, ad eg er kominn í þad land, sem Drottinn sór forfedrum vorum ad géfa oss. 4. Presturinn skal þá taka vid kørfunni af hendi þér, og setja hana nidur vid altari Drottins þíns Guds; 5. þá skaltu enn fremur inna til og segja frammi fyrir Drottni þínum Gudi: forfedur mínir hinir Sýrlendsku fóru reikandi, þeir héldu sídan ofan til Egyptalands, og voru þar útlendíngar og fáir síns lids, en urdu þar ad mikilli, voldugri og fjølmennri þjód; 6. en hinum Egyptsku fórst illa vid oss, þeir þjøkudu oss og løgdu á oss þúngan þrældóm; 7. þá hrópudum vér til Drottins, Guds fedra vorra, og Drottinn heyrdi vort ákall, og sá vora eymd, bágindi og ánaud, 8. og Drottinn útleiddi oss af Egyptalandi med voldugri hendi og útréttum armlegg, med miklum undrum, táknum og fyrirburdum, 9. en leiddi oss híngad til þessa stadar, og gaf oss þetta land, hvar mjólkinni flædir og hunánginu; 10. þess vegna flyt eg nú híngad þann fyrsta ávøxt landsíns sem þú, Drottinn! gafst mér — þér skulud leggja þetta framm fyrir Drottinn ydar Gud og tilbidja hann; 11. svo skaltú, ásamt Levítunum og þeim útlendu sem eru á medal þín, gjøra þér gladt, vegna þess góda sem Drottinn þinn Gud hefir veitt þér og þínu hyski.

12. Þegar þú ert búinn ad greida allar tíundir af þinni inntekt á hinu þridja ári, sem er gjaldár þessara tíunda, og þú hefir veitt Levítunum, þeim útlendu, þeim fødurlausa og ekkjunni, máltíd innan þinna borga svo þeir hafi mettir ordid, þá skaltu segja frammi fyrir Drottni þínum Gudi: 13. eg hefi flutt burt af heimilinu þad sem helgad var, og hefi géfid þad Levítum, þeim útlendu, ekkjunni og fødurleysíngjum, eptir øllum þeim bodordum sem þú hefir lagt fyrir mig, eg hefi ekki tradkad þínum bodordum, né gleymt þeim; 14. eg hefi ekki etid af því í minni sorg, og eg hefi ekkért af því tekid til óhreinnar brúkunar, og ekkért af því hefi eg géfid hinum dauda, eg hefi hlýdt raustu Drottins míns Guds, og gjørt allt eins og hann baud mér.

15. Lít ofan frá þínu heilaga sæti á himnum, og blessa þitt fólk Israel, og þad land sem þú hefir géfid oss, eins og þú med eidi

V. 14. Þessar tíundir áttu ad brúkast til glebilegra géstabođa, en ekki mátti þeim verja til neinna hluta sem óhreinir voru eptir Levítisku løgunum, ei heldur til útfarar daudra manna.

lofadir forfedrum vorum, landid hvar mjólkinni flædir og hunánginu.

16. Á þessum degi býdur Drottinn þinn Gud þér, ad breita eptir þessum bodordum og setníngum; gjæt þeirra og breit eptir þeim af øllu hjarta og af allri sálu þinni; 17. þú hefir sagt vid Drottinn í dag, ad hann skuli vera þinn Gud, og þú viljir gánga á øllum hans vegum, og halda hans løgmál, bodord og setnínga og hlýda hans raust; 18. þess vegna hefir líka Drottinn ákvedid vid þig í dag, ad þú skulir vera hans ódals fólk, eins og hann hefir heitid þér, og ad þú skulir vardveita hans bodord, 19. og ad hann skuli hefja þig yfir allar þjódir adrar sem hann hefir tilsett, svo ad þinn heidur, nafn og sæmd verdi uppi, og þú sért fólk helgad Drottni Gudi þínum, eins og hann hefir heitid.

## 27. Kapítuli.

Steinar hinumeigin Jórdanar, bølvan frá fjallinu Ebal.

1. Móses ásamt med øldúngum Ísraelíta baud fólkinu og sagdi: haldid øll þessi bodord sem eg legg fyrir ydur í dag, 2. og þegar þér farid yfirum Jórdan inní landid sem Drottinn ydar Gud mnn gefa ydur, þá skaltu reisa upp stóra steina, og bræda þá utan med kalki, 3. og rita á þá allar þessar lagagreinir, þegar þú ert kominn yfirum, í landid sem Drottinn þinn Gud mun gefa þér, landid hvar mjólkinni flædir og hunánginu, eins og Drottinn, þinna fedra Gud, hefir heitid. 4. Já! þegar þér erud komnir yfirum Jórdan, þá skulud þér reisa upp þessa steina, sem eg var núna á ad minnast, á fjallinu Ebal, og bræda þá utan med kalki.

5. Þú skalt líka byggja Drottni þínum Gudi þar altari úr steinum, án þess ad bera ad þeim nokkurt járn.

6. Af ótilhøggnum steinum skaltu byggja þetta altari Drottni þínum Gudi og þar á skaltu offra Drottni þínum Gudi brennioffri, 7. þar skaltu líka offra þakklætis offri, halda þar máltíd, og gledja þig frammi fyrir Drottni þínum Gudi.

8. En á steinana skaltu skrifa øll þessi lagabod greinilega og læsilega.

9. Framvegis taladi Móses og prestarnir og Levítarnir vid allan Ísrael og søgdu: hygg ad og hlustadu eptir, Ísrael! á þessum degi ertu ordin lýdur Drottins þíns Guds, 10. þess vegna skaltú hlýda raustu Drottins þíns Guds, og breita eptir hans bodordum og setníngum, sem eg legg fyrir þig í dag.

11. Og Móses baud fólkinu sama daginn og sagdi: 12. þessir skulu standa uppá fjallinu Garisím til ad blessa fólkid, þegar þér erud komnir yfirum Jórdan: Símeon, Leví, Júda, Íssaskar, Jósep, Benjamín. 13. Og þessir skulu standa uppá fjallinu Ebal til ad bølva: Rúben, Gad, Asser, Sebúlon, Dan og Neftali.

14. Levítarnir skulu med hárri raustu hrópa þannig frammi fyrir øllum Ísraelítum: 15. bølvadur sé sá sem býr sér til skurdgod eda steipt líkneski — þad er Drottni vidbjódur — handaverkid einhvørs smidsins, og blótar þad á laun, og allt fólkid undirtaki og segi Amen.

16. Bølvadur sé sá sem ófrægir fødur sinn eda módur, og allt fólkid segi Amen.

17. Bølvadur sé sá sem færir saman landamerki síns náúnga, og allt fólkid skal segja Amen.

18. Bølvadur sé sá sem leidir þann blinda af réttum vegi, og allt fólkid skal segja Amen.

19. Bølvadur sé sá sem hallar rétti hins útlenda, hins fødurlausa og ekkjunnar, og allt fólkid skal segja Amen.

20. Bølvadur sé sá sem legst med stjúpu sinni,

V. 5. Steinarnir áttu ekki vera tilhøggnir 2 Mós. 20, 25. — eins og líka segir í versum hér á eptir. V. 8. Nl. þá sem fyrri var áminnst, en ekki þá sem altarid var byggt af. V. 20. Sjá Kap. 23, 1.

því hann flettir upp ábreidu fødur síns, og allt fólkid segi Amen.

21. Bølvadur sé sá sem legst med nokkurs-konar fénadi, og allt fólkid skal segja Amen.

22. Bølvadur sé sá sem legst med systur sinni, hvørt sem hún er samfedra eda sammædra, og allt fólkid segi Amen.

23. Bølvadur sé sá sem liggur hjá teingda-módur sinni, og allt fólkid segi Amen.

24. Bølvadur sé sá sem vegur náúnga sinn leynilega, og allt fólkid segi Amen.

25. Bølvadur sé sá sem tekur mútu til þess ad fyrra lífi saklaúsan mann og allt fólkid segi Amen.

26. Bølvadur sé sá sem ekki heldur allar þessar lagagreinir, og breitir eptir þeim, og allt fólkid skal segja Amen.

## 28. Kapítuli.

Þeir hlýdnu hljóta blessan, þeir óhlýdnu bølvan.

1. En ef þú ert gégninn raustu Drottins þíns Guds, svo þú heldur og gjørir øll hans bodord, sem eg legg fyrir þig í dag, þá mun Drottinn þinn Gud gjøra þig ædstann allra þjóda á jardríki, 2. og á þér munu þá rætast og hrýna allar þessar blessanir, af því þú hlýddir raustu Drottins þíns Guds.

3. Blessadur muntu verda í borginni, bless-adur á akrinum, 4. blessast mun þér þinn lífsins ávøxtur, þinn jardar ávøxtur, ávøxtur þinnar hjardar, ávøxtur þinna nauta, og á-vøxtur þinna sauda. 5. Blessun mun fylgja þinni kørfu og þínu braudtrogi.

6. Blessadur muntu vera í þínum inngángi, og blessadur í þínum útgángi. 7. Drottinn mun hrekja þína óvini fyrir þér sem rísa upp á móti þér, um einn veg munu þeir ad þér ráð-ast, en um sjø leidir munu þeir flýa undan þér; 8. Drottinn mun bjóda blessaninni ad vera í þínu búri, og í øllu sem þú tekur þér fyrir høndur, og hann mun blessa þig í því landinu, sem Drottinn Gud mun géfa þér. 9. Drott-inn mun hefja þig til helgadrar þjódar, eins og hann hefir svarid þér, ef þú héldir bodord Drottins þíns Guds og geingir á hans veg-um; 10. Skulu þá allar þjódir á jardarkrýngl-unni sjá, ad þú ert eignadur Drottni, og þeir skulu hafa ótta af þér. 11. Hann mun géfa þér yfirgnæfanleg audæfi, bædi af þínum eigin lífsávexti, af ávexti fénadarins, af ávexti ak-ursins, í því landinu sem Drottinn þinn Gud sór þínum forfedrum ad géfa þér. 12. Og Drottinn mun uppljúka sínu nægtabúri, himn-inum, til ad géfa þínu landi regn á hagkvæm-um tíma, og hann mun blessa allan þinn starfa; þú skalt lána mørgum þjódum, en sjálfur ei lán taka af neinum. 13. Drottinn mun láta þig verda ad høfdi en ekki hala, þú skalt ætíd hafa betur og aldrei verda undir, ef þú ert hlýdinn bodordum Drottins þíns Guds, sem eg legg fyrir þig í dag, ad þú gjætir þeirra og breytir eptir þeim, 14. ef þú víkur ekki frá neinum þessum ordum sem eg legg fyrir þig í dag, hvørki til hægri né vinstri, svo þú géfir þig vid annarlegum gudum til ad þjóna þeim.

15. En ef þú ekki gégnir raustu Drottins þíns Guds, ad halda og gjøra øll hans bodord og setnínga, sem eg legg fyrir þig í dag, þá skulu allar þessar óblessanir dynja yfir þig og hrýna á þér: 16. Bølvadur sértu þá í borg-inni, bølvadur á akrinum, 17. bølvud skal þín karfa vera og þitt braudtrog, 18. bølvadur sé þinn lífsins ávøxtur, þinn jardar ávøxtur, á-vøxtur þíns nautpeníngs og þíns saudfjár, 19. bølvadur sértu þegar þú geingur inn, og bølv-adur þegar þú geingur út. 20. Drottinn mun senda yfir þig óblessan, óráð og lánleysi í øllu sem þú tekur þér fyrir høndur ad gjøra, þáng-adtil hann afmáir þig, og fyrirfer þér voveif-

lega fyrir þinna illgjørda sakir þar þú yfirgafst hann.

21. Drottinn mun láta drepsóttir ramma þig, þángadtil hann upprætir þig af landinu, sem þú nú ert á leidinni ad ødlast. 22. Drottinn mun slá þig med megrusótt, køldu, hita og bruna, med sverdi, med kyrkíngi og følnan í øllum jardargróda, og mun þetta ásækja þig þángadtil þad fyrirkémur þér. 23. Þinn himin, sem er yfir þínu høfdi, skal verda sem kopar, og jørdin undir þér sem járn.

24. Drottinn mun géfa þínu landi rik og sand í stadin fyrir regn af himni, þángadtil hann hefir eydilagt þig; 25. Drottinn mun láta óvini þína slá þig, um einn veg muntu gánga ámóti þeim, en um sjø vegu muntu flýa undan þeim, og þú skalt hrekjast um øll heimsins ríki. 26. Þinn líkami skal verda øllum loptsins fuglum, og øllum jardarinnar dýrum ad bráð, og einginn skal bægja þeim þar frá; 27. Drottinn mun slá þig med Egyptskum kaunum og sárum á baktil, med ólæknanlegum kláda og vosi. 28. Drottinn mun slá þig med vitfyrríngu, blindni og med hjartans sínnuleysi; 29. þú skalt fálma um middegid, einsog blindur madur fálmar í mirkri, og þú skalt eingri gjæfu stýra á þínum vegum, þú skalt verda hrakinn og áreittur alla þína daga, og einginn skal hjálpa þér. 30. Þú munt festa þér konu, og annar mun sofa hjá henni, þú munt byggja þér hús, en ekki fá ad búa í því sjálfur; þú munt planta víngard, en ekki fá sjálfur af ad njóta. 31. Þínum uxa skal verda slátrad fyrir augunum á þér, en þú skalt ekki fá ad eta þaraf; asna þínum skal verda hripsad frá þér, og ekki koma aptur til þín, saudir þínir skulu géfast óvinum þínum, og einginn skal taka málstad þinn. 32. Þínir synir og dætur skulu géfast á vald útlendri þjód, augu þín skulu horfa á þetta, og daprast af eptirsjón á þeim, en einginn styrkur skal vera í þínum høndum (til ad hjálpa þeim). 33. Øllum ágóda af landinu og þínum eigin sveita skal þad fólk eyda sem þér er ókunnugt, en þú skalt verda áreittur og hrakinn alla þína daga.

34. Þú skalt gánga frá vitinu útaf því sem augu þín meiga horfa á; 35. Drottinn mun slá þig med slæmum sárum á knén og fótleggina, frá iljum og allt uppá hvirfil, sem ekki verdi grædd. 36. Drottinn mun reka þig í burtu og þinn Kóng, sem þú hefir sett yfir þig, til þeirrar þjódar sem hvørki þú, né þínir forfedur hafa þekkt, og þar muntu dýrka annarlega gudi, stokka og steina; 37. þú munt verda ad vidundri og almennilegu ordtaki og spotti medal þess fólks sem Drottinn rekur þig til; 38. mikid kornsædi muntu færa útá akrana, en litlu skaltu aptur innsafna, því eingisprettur skulu uppeta þad. 39. Þú munt planta víngard og yrkja hann, en þú skalt hvørki drekka vínid, né samansafna vínberjunum þaraf, því madkurinn skal fordjarfa þad. 40. Þú skalt hafa olíuvidartré innan allra þinna landamerkja, en þú skalt þó ei smyrja þig med þeirra olíu, því þín olíutré skulu upprætast. 41. Þú munt géta syni og dætur, en ekki njóta þeirra, því þau skulu verda hertekin og flutt í burtu. 42. Eingisspretturnar skulu setjast ad øllum þínum aldintrjám og landsávøxtum. 43. Sá útlendi, sem er hjá þér, skal æ meir og meir gánga upp yfir þig, en þú skalt æ meir og meir gánga nidur, 44. hann mun lána þér, en þú munt honum ekki lána, hann mun verda høfudid, en þú halinn.

45. Allar þessar óblessanir skulu koma yfir þig, elta þig og hrýna á þér, þángadtil þú verdur afmádur, af því þú gégndir ekki raustu Drottins þíns Guds, ad halda hans bodord og setnínga, einsog hann hefir bodid þér. 46. Þessar óblessanir skulu vera á þér og þínum

afkomendum æfinlega til býsna og fádæma, 47. af því þú dýrkadir ekki Drottinn Gud þinn med hjartans gledi og unadsemd, þæd þú hafdir alls nægtir; 48. þessvegna skaltú meiga þrælka hjá þeim fjandmønnum á hvørra vald Drottinn þinn Gud mun géfa þig, med húngri, þorsta, klædleysi og skorti á øllu, og hann skal leggja járnok á þinn háls, þángadtil hann gjørir útaf vid þig. 49. Drottinn mun leida þjód eina ámóti þér úr fjarlægd, frá jardarinnar enda, er komi med arnarflugi, hvørrar túngumál þú ekki skilur, 50. þad mun illúdleg þjód sem ei mun gjøra greinarmun hins aldrada, og ekki vægja hinum úngu, 51. hún mun eyda ávexti þíns fénadar og þíns lands ávexti, þángadtil þú deyr útaf, hún mun ekki leifa þér korni, víni eda vidsmjøri, eigi heldur ávexti nautpeníngsins eda fjárins, þángadtil hún er búin ad gjøra útaf vid þig. 52. Þeir munu umsitja þig í øllum þínum borgum í landinu, þartil þeir fá nidurbrotid þína háu og rambygdu múrveggi, sem þú treystir á, hún mun umsitja þig í øllum borgum í landi þínu, því sem Drottinn þinn Gud hefir géfid þér. 53. Þú munt eta þinn lífsávøxt, holdid af þínum sonum og dætrum, sem Drottinn þinn Gud hefir géfid þér; svo nærri mun gánga umsátrid og þau harmkvæli sem þú munt sæta af óvinum þínum; 54. svo ad sællífur og kveifarlegur madur medal þín skal þó ekki tíma ad géfa bródur sínum, edur sinni húsfreyu, sem hvílir í hans fadmi, eda þeim syni sem hann á enn nú á lífi, nokkud af holdi sona sinna, 55. hvørja hann mun neydast til ad eta, af því hann hefir ekkért annad til; svo nærri mun gánga umsátrid og þau harmkvæli sem þú munt sæta af þínum óvinum í øllum þínum borgum.

56. Sællíf kona medal þín og kveifarleg, svo hún fyrir sællífi og kveifarskap, hefir ei svomikid sem drepid hendi sinni í kaldt vatn, hún skal þó ei tíma ad géfa bónda sínum, sem hvílir í hennar fadmi, eda syni sínum eda dóttur, 57. þá fylgjuna sem komin er af hennar módurlífi, eda þann soninn sem hún hefir nýfædt, því hún mun sjálf eta hann á laun, af skorti á øllu — svo nærri mun gánga umsátrid og þau harmkvæli sem þú munt sæta af þínum óvinum í øllum þínum borgum. 58. Ef þú ekki heldur og breytir eptir øllum ordum í þessu løgmáli sem skrifud eru í þessari bók, svo þú óttist þad dýrdlega og hrædilega nafn Drottins þíns Guds, 59. þá mun Drottinn slá þig og þína afkomendur med frábæru móti, med miklum og lángvarandi plágum, med íllum og þrálátum sjúkdómum; 60. hann mun snúa til þín øllum Egyptalands sjúkdómum, sem þú kvídir fyrir, og þeir munu alltaf haldast vid þig, 61. og þarhjá mun Drottinn láta koma yfir þig alla sjúkdóma og plágur, sem ei eru nafngreindar í þessari løgbók, þángad til úti er med þig, 62. og ei skulu nema fáeinir verda eptir af ydur, ístadinn þess þér ádur vorud svo margir sem himinsins stjørnur, af því þú gégndir ei raustu Drottins þíns Guds, 63. og einsog Drottinn ádur fyrri hafdi yndi af því ad gjøra ydur vel til og fjølga ydur, eins mun hann hafa yndi af ad eydileggja og afmá ydur, þér munud verda útreknir úr því landi, sem þú nú ert á veginum ad eignast.

64. Drottinn mun dreifa þér medal allra þjóda frá einu heimsskauti til annars, og þar muntu dýrka annarlega Gudi, sem hvørki þú né þínir fedur hafa þekkt, af stokkum og steinum.

65. Ámedal þessara þjóda (heidíngja) skaltu ei meiga búa í nædi, og þínir fætur skulu þar aungva ró hafa, því ad Drottinn mun í þeim stad géfa þér skjálfandi hjarta, óelju og eirdarleysi; 66. þitt líf skal leika fyri þér sem á þrædi, þú skalt vera hræddur um þig dag og nótt, og aldrei meiga vera ugglaus um líf þitt; 67. á morgnana muntu segja: æ! mætta eg nú lifa

til kvølds, en á kvøldin muntu segja: æ! mætta eg nú lifa til morguns! søkum hræðslu þíns hjarta sem mun skélfa þig, og søkum þess sem þú mátt horfa uppá, 68. og Drottinn mun á skipum flytja þig aptur inní Egyptaland, um þann veg sem eg hefi sagt þér, að þú skyldir hann ei framar sjá, og þar skuluð þér seldir verða óvinum yðar til þræla og ambátta, svo að þar munu bresta kaupendur.

## 29. Kapítuli.

Upphvatníng til hlýðni.

1. Þessi eru þau sáttmálsorð sem Drottinn bauð Móses að semja við Israels børn í Móabítalandi, auk sáttmálans sem hann samdi við þau áður í Horeb.

2. Móses kallaði saman allann Israel, og sagði: þér hafið sjeð allt það sem Drottinn gjørði yður ásjáandi í Egyptalandi, bæði við hann Faraó sjálfann, hirðmenn hans og allt landið, 3. eg meina þær miklu plágur sem þú hefir sjeð með þínum eigin augum, þau miklu tákn og undur. 4. Samt hefir Drottinn allt til þessa dags ekki géfið yðar réttskynjandi hjarta, eður augu til að sjá með, eða eyru til að heyra með; 5. Hann leiddi yður fjørutíu ár í eyðimørku, yðar føt fyrndust ekki á yður, og yðar skór slitnuðu ekki á fótum yðar; 6. þér átuð ekki brauð, né drukkuð vín, eða nokkurn áfeingan drykk, svo þú skyldir meiga skynja að hann væri Drottinn þinn Guð, 7. þér komust híngað á þenna stað, þá lagði Síhon kóngurinn af Hesbon og Ogg kóngurinn af Basan á móts við oss til orustu, en vér løgðum þá að velli, 8. tókum undir oss þeirra land, og skiptum því með Rúbenítum, Gaðitum og hálfri Manassis ættkvísl.

9. Svo haldið þá þessi sáttmálans orð og breytið eptir þeim, svo þér gétið orðið lánsamir í øllum yðar fyrirtækjum. 10. Þér standið í dag allir saman frammi fyrir Drottni, yðar Guði, høfuðsmenn yðar ættkvísla, yðrir øldúngar, yðrir embættismenn, og hvør maður í Israel, 11. yðar børn, yðar húsfreyur, þeir útlendu, sem eru í þínum landtjøldum, þeir sem høggva við þinn og sækja vatn fyrir þig, 12. til að binda með eiði þann sáttmála sem Drottinn þinn Guð vill gjøra við yður í dag, til þess hann gjøri þig í dag að sinni þjóð, 13. og hann sé þinn Guð einsog hann hefir lofað þér, og einsog hann hefir svarið þínum forfeðrum Abraham, Isaak og Jakob; 14. því eg bind þenna sáttmála og eið, ekki við yður einasta, 15. heldur bæði við yður sem hér eruð í dag og standið hér ásamt oss frammi fyrir Drottni vorum Guði, og líka við þá sem ekki eru hér í dag með oss, nefnil.: við eptirkomendurnar. 16. Því þér munið eptir verunni okkar í Egyptalandi, og hvørnig vér komumst miðt ígégnum svo margar þjóðir sem yfir var að fara, 17. þér sáuð þeirra svívyrðilegu Guðs dýrkun og skúrgoð af tré og steinum, af gulli og silfri sem þeir høfðu hjá sér, 18. svo það má einginn vera meðal yðar, hvørki kall né kona, heimili eða ættkvísl, sem í dag snúi hjarta sínu frá Drottni vorum Guði, og gángi að dýrka goð þessara þjóða, á meðal yðar sé eingin rót sem beri eitur eða malurt.

19. Sé sá nokkur er heyrir viðløgur þessa svardaga, og þó hræsnar fyrir sínu eigin hjarta og segir: „mér skal líða vel því eg vil gánga eptir minni eigin lyst“ svo eg géti drukkið við þorstanum, 20. þá mun Drottinn ekki þirma þvílíkum, heldur mun hans reiði og vandlætíng dynja yfir þann mann, og allar þær óblessanir sem upptaldar eru í þessari bók skulu hlaðast á hann, og Drottinn mun afmá hans nafn undir himninum, 21. og hann mun taka hann útaf úr øllum ættkvíslum Israels, til að gjøra honum allt það íllt, sem óblessunarorð þess sáttmála sem er skrifaður í þessari lagabók, hljóða uppá.

22. Þegar eptirkomendurnir, børn ydar, sem koma munu eptir ydar dag, og útlendir sem koma ad úr fjarlægum løndum, sjá plágur lands þessa, og veikindi sem Drottinn slær þad med, 23. þá munu þeir segja: hann hefir brennt land þetta allt med brennisteini og salti, svo þar verdur ekki sád, og ei getur þar neitt sprottid, eda nokkur urt komid upp úr jørdunni, en allt er umturnad eins og Sódóma og Gomorra, Adama og Seboim, sem Drottinn umturnadi í reidi sinni og hefndarbrædi. 24. Þá munu allar þjódir spyrja: hvad kémur til ad Drottinn hefir farid svona med þetta land? hvørnig stendur á þessari hans miklu heiptarreidi? 25. Þá munu menn svara: þad kémur af því, ad þeir yfirgáfu sáttmálann sem Drottinn, þeirra fedra Gud, gjørdi vid þá, þegar hann leiddi þá útúr Egyptalandi, 26. en geingu ad dýrka annarlega gudi sem þeir ekki þekktu til, og sem þeim aldrei voru ætladir *), 27. þess vegna hefir Drottinn ordid svo brádur vid þetta land, ad hann hefir látid koma yfir þá allar þær óblessanir sem eru tilnefndar í þessari bók, 28. og rekid þá burt úr þeirra landi í mikilli reidi, grimd og brædi og fleygt þeim í framandi lønd, hvad svo stendur enn í dag.

29. Leyndardómar eru fyrir Drottinn vorn Gud, en hvad opinberad er tilheyrir oss og nidjum vorum æfinlega, svo ad vér þess heldur breytum eptir øllum þessum løgmálsordum.

## 30. Kapituli.

Gud miskunar þeim er sjá ad sér.

1. Þegar allt þetta kémur yfir þig, annadhvørt blessanin eda (bølvanin), sem eg hefi lagt fyrir þig, ad þú leggur þér þad á hjarta á medal þeirra þjóda til hvørra Drottinn þinn Gud rekur þig, 2. og þú snýr þér aptur til Drottins þíns Guds, og gégnir, bædi þú og nidjar þínir, hans raustu af øllu hjarta og allri sálu, í øllu sem eg legg fyrir þig í dag; 3. þá mun Drottinn þinn Gud gjøra enda á þinni herleidíngu og aumkast yfir þig, og safna þér aptur saman af øllum þjódum á medal hvørra Drottinn þinn Gud hafdi dreift þér; 4. þó þú svo hefdir tvístrast allt til heimsskauta, þá mun þó Drottinn þinn Gud samansafna þér og koma þér þadan, 5. og hann mun koma þér í þad land sem þínir fedur hafa átt, ad þú eignist þad, og hann mun gjøra enn betur til þín, og fjølga þér enn meir enn þínum forfedrum, 6. og Drottinn þinn Gud mun umskéra þitt hjarta og þinna nidja hjarta, svo ad þú elskir Drottinn Gud þinn af øllu þínu hjarta og af allri sálu — þar er þitt líf undirkomid. 7. En Drottinn þinn Gud mun snúa øllum þessum óblessunum á óvini þína, á þá sem hata þig og ofsækja; 8. en ef þú snýst þannig og hlýdir raustu Drottins, svo þú breytir eptir øllum hans bodordum sem eg legg fyrir þig í dag, þá mun Drottinn Gud þinn farsæla þig í øllum þínum starfa, 9. med barnaláni, med ávexti af þínum fénadi og þinni jørdu, svo þér gángi vel; Drottinn mun þá aptur fara ad hafa yndi af ad gjøra þér gott, eins og hann hafdi yndi af því vid þína forfedur, 10. ef þú ad eins gégnir raustu Drottins þíns Guds, í því ad halda hans bodord og setnínga sem skrifadir eru í þessari løgbók, ef þú ad eins snýr þér til Drottins þíns Guds af øllu hjarta og af allri sálu. 11. Því þad bodord **) sem eg hefi lagt fyrir þig í dag er ekki svo erfidt fyrir þig eda fjarlægt. 12. Ekki er þad uppí himninum svo þú þurfir ad segja: hvør ætli fari fyrir oss uppí himinin og sæki þad fyrir oss, og útlisti, svo vér getum breytt eptir því; 13. þad er ekki hinumeigin hafsins, svo þú þurfir ad segja: hvør skal vilja fara fyrir

*) Sjá Kap. 4, 19. **) Nl. ad halda vid trúna á þeim eina, sanna Gudi.

oſs yfir hafid til ad ſækja þad og útliſta oſs,
ad vér fáum breytt eptir því; 14. Því þad
bodord liggur mjøg nærri þér, þad er í þín=
um eigin munni og hjarta, ſvo ad þú gétur
þeſs vegna breytt eptir því.
15. Sjá! eg legg fyrir þig í dag lífid og
þad hid góda, daudann og hid vonda, 16. med
því eg bíd þér í dag ad þú ſkulir elſka Drott=
inn Gud þinn og gánga á hans vegum og vard=
veita hans bodord, løgmál og ſetnínga, ſvo þú
meigir lifa og ſjølga, og Drottinn þinn Gud
bleſsi þig í því landi ſem þú fer nú til ad eign=
aſt; 17. En ef þér ſnýſt hugur og hlýdir
ekki, en lætur villa þig ſvo þú tilbidjir annarlega
gudi og dýrkir þá, 18. þá kunngjøri eg ydur
í dag, ad þér munud tortýnaſt og ekki leingi
lifa í því landi, ſem þú ert nú á leidinni ad
eignaſt þegar þú ert kominn yfirum Jórdan.
19. Kved eg í dag himin og jørd til vitnis
yfir ydur, ad eg hefi lagt fyrir ydur lífid og
daudann, bleſsanina og bølvanina; veldu þá líf=
id, ſvo þú og þínir nidjar meigi lifa; 20. elſkid
Drottinn ydar Gud, og hlýdid hans rauſtu og
haldid ydur til hans, því þar er þitt líf und=
irkomid og lánggjæfur aldur í því landi ſem
Drottinn hefir ſvarid ad géfa þínum forfedrum
Abraham, Isaak og Jakob.

## 31. Kapituli.

*Móſes leggur nidur embættid, ſetur Jóſúa í ſinn ſtad, kvedur til þíngs.*

1. Og Móſes fór ennú þeſsum ordum
til alls Israelslýds: 2. Eg er í dag rétt
hundrad og tuttugu ára gamall, eg gét nú ekki
leingur geingid út og inn, líka hefir Drottinn
ſagt vid mig: þú ſkalt ekki komaſt yfir þeſsa
Jórdan. 3. En Drottinn þinn Gud mun
ſjálfur gánga á undan þér, hann mun og ſjálf=
ur eyda þeſsum þjódum, ſvo þú leggir þær
undir þig; Jóſúa ſkal vera þinn fyrirlidi, eins
og Drottinn hefir ſagt; 4. og Drottinn mun
fara med þeſsar þjódir eins og hann fór med
Síhon og Ogg Amoríta Kónga og land þeirra,
hvørja hann eydilagdi. 5. Þegar Drottinn
géfur þær ydur á vald, þá ſkulud þér breyta
vid þær ſamkvæmt þeim bodordum ſem eg hefi
lagt fyrir ydur; 6. verid hrauſtir og fullhugad=
ir, verid ekki ſmeikir eda hræddir vid þá, því
ad Drottinn þinn Gud mun ſjálfur vera med
þér, hann mun ekki ſleppa af þér ſínni hendi
edur yfirgéfa þig.
7. Móſes kalladi þá á Jóſúa, og ávarpadi
hann þannig ad øllum Israel áſjáandi: vertú
hughrauſtur og øruggur, því þú munt leida þetta
fólk inní þad land ſem Drottinn ſór ad géfa
þeirra forfedrum og þú munt ſkipta því mill=
um þeirra; 8. Drottinn mun gánga á undan
þér, hann mun vera med þér, hann mun ekki
ſleppa af þér ſínni hendi né yfirgéfa þig, vert
því ekki hræddur né kvídinn.
9. Móſes ſkrifadi þetta løgmál og fékk þad
preſtunum, nidjum Leví, ſem báru ſáttmálsørk
Drottins, og øllum øldúngum Israelíta, og
Móſes lagdi ſvo fyrir þá: 10. á ſjøunda hvør=
ju ári, á þeim tíma, ſem uppgjafar árid geing=
ur inn, á Laufſkálahátídinni, 11. þegar allir
Israelítar byrtaſt fyrir augſýn Drottins þíns
Guds á þeim ſtad ſem hann mun velja ſér, þá
ſkaltu láta leſa þetta løgmál fyrir øllum Isra=
elítum í heyranda hljódi, fyrir øllum þíngheimi,
12. bædi køllum og konum, børnum og út=
lendum ſem eru innanborgar, ſvo ad þeir heyri
og nemi, og óttiſt Drottinn þeirra Gud, haldi
og breyti eptir øllum greinum þeſsa løgmáls,
13. og ad þeirra børn ſem ekkért vita af þeſsu
meigi heyra þetta, og læra ad óttaſt Drottinn
ydar Gud alla daga í því landinu, ſem þér
nú farid yfirum Jórdan til ad eignaſt. 14.
Og Drottinn ſagdi vid Móſes: ſjá! þinn and=
láts tími er nálægur, kalla á Jóſúa, og gáng=

id inní samkundubúdina, þar skal eg segja hon-
um vilja minn; Móses og Jósúa fóru og geingu
inní samkundubúdina. 15. En Drottinn birt-
ist í tjaldbúdinni í skýstólpa, og skýstólpinn
stadnæmdist í búdardyrunum. 16. Og Drott-
inn sagdi vid Móses: sjá! þú munt sofna med
fedrum þínum, og þetta fólk mun taka sig upp,
og taka frammhjá mér med annarlegum gudum
þess lands sem þeir nú koma til, segja svo skil-
id vid mig, og brjóta þann sáttmála sem eg
gjørdi vid þá; 17. Mín reidi mun þá geysa
yfir þá, og eg mun líka segja skilid vid þá, og
byrgja mitt andlit fyrir þeim, svo þeir skulu
verda eydilagdir, og hreppa miklar ófarir og
harmkvæli; þá munu þeir segja: hefir ei þetta
mætt mér, af því minn Gud er ekki hjá mér?
18. Eg skal þá byrgja mitt andlit á þeim
tíma, søkum allra þeirra illgjørda sem þeir hafa
framid, er þeir skyldu halla sér ad annarleg-
um gudum.

19. Svo skrifid þá upp þenna lofsaung, og
kénnid hann Israelsbørnum, og leggid hann þeim
í munn, svo ad sá sami lofsaungur meigi verda
mér til vitnisburdar medal Israelsbarna, 20.
þegar eg hefi leidt þá inní þad land sem eg hefi
svarid þeirra forfedrum, hvar mjólkinni flædir og
hunánginu, en þá þeir neyta þess, og gjørast full-
ir og feitir, þá munu þeir halla sér ad annarleg-
um gudum, dýrka þá, en forsmá mig, og brjóta
minn sáttmála; 21. og þegar þeir þá hreppa
miklar ófarir og harmkvæli, þá skal þessi lofsálm-
ur svara, og vitna þeim ámóti — því nidjar
þeirra eigu ei heldur ad tína honum nidur —
því eg veit hvad þeim býr innanbrjósts nú
strax ádurenn eg hefi innleidt þá í þad land sem
eg hefi svarid. 22. Móses skrifadi því strax
upp þenna sálm, og kénndi hann Israelsbørnum.

23. Og Drottinn baud Jósúa Núnssyni
segjandi: vertu hughraustur og øruggur, því ad
þér mun audnast ad leida Israelsbørn inní
þetta land, sem eg hefi svarid þeim, og eg vil
vera med þér.

24. Þegar Móses var algjørlega búinn ad
rita þessar løgmálsgreinir í eina bók, 25. þá baud
hann Levítunum, sem báru sáttmálsørk Drottins,
segjandi: 26. takid þessa løgbók, og leggid
hana vid hlidina í sáttmálsørk Drottins ydar
Guds, ad hún sé þar til vitnisburdar móti þér,
því eg þekki þinn mótþróa og hardúd, sjá!
medan eg ennú lifi hjá ydur í dag, erud þér
óhlýdnir ydar Drottni, 27. hvad miklu fremur
mun þad þá ad mér daudum! 28. Kallid nú
fyrir mig alla øldúnga og høfudsmenn ydar
kynkvísla, svo eg géti lesid þeim áheyrandi øll
þessi ord og kvedi svo himin og jørd til vitnis
móti þeim; 29. því ad eg veit þér munud ept-
ir minn dauda mannspillast, og víkja af þeim vegi
sem eg hefi lagt fyrir ydur, þá mun úr því koma
framm vid ydur ógjæfan, af því þér gjørd-
ud þad sem íllt var í augliti Drottins, þar
þér reittud hann til reidi med ydar framferdi.
30. Móses las þá, ad áheyranda øllum þíng-
heimi Israelíta, øll ordin í eptirfylgjandi sálmi.

## 32. Kapítuli.

Svanasaungur Mósis.

1. Hlustid þér til himnar, því eg vil tala!
heyr þú jørd! málid míns munns. 2. Mín
kénníng skal drjúpa sem regn, og mitt mál skal
renna sem døgg, eins og regnid ofaná grasinu,
og eins og daggardroparnir ofaná jurtunum.
3. Því ad eg vil prísa nafnid Drottins —
géfid Gudi vorum dýrdina! 4. Hann er hellu-
bjarg, fullkomin hans verk og réttir hans veg-
ir — Gud er trúfastur án allra pretta, hann
er réttlátur og sannordur. 5. Þeirra eigin sví-
virdíng spillti þeim fyrir honum; þeir eru ekki
hans børn, sú umhverfa og øfuga þjód. 6.
Þakkar þú svo Drottni Gudi þínum, þú heimska
og fávísa þjód! er hann þó ekki fadir þinn, sá

sem átti þig? er hann ei sá sem skapadi þig og mindadi? 7. Minnstu fyrri tímanna, og hygg ad árum enna lidnu aldanna, spyrdu fødur þinn ad, og hann mun géta frædt þig á því — þína øldúnga, og þeir munu géta sagt þér þad. 8. Þegar sá Hæsti skipti løndum med þjódunum, og útdreifdi mannanna sonum, þá tilsetti hann landamerki fyrir þjódirnar eptir tølu Israelsbarna. 9. Þvíad hlutskipti Drottins er hans fólk, og Jakob er sá partur hans arfleifdar. 10. Hann leitadi hann uppi í eydimørkinni, á hrjóstrugum sorgarstad, í óbygdinni; hann var hvervetna í kríngum hann og hugdi ad honum, hann vardveitti hann sem sjáaldur auga síns. 11. Eins og ørnin leidir út únga sína og fløgrar yfir þeim, svo útbreiddi hann vængi sína — tók þá upp og bar þá á vængjum sér. 12. Drottinn einsamall leiddi hann, og einginn annarlegur gud var med honum. 13. Hann fór med hann yfir øldur jardarinnar, og fæddi hann á ávøxtum akursins, lét hann sjúga húnáng úr bjørgunum, og vidsmjør úr tinnusteinunum. 14. Hann fæddi hann med rjóma af kúpeníngnum, og nýmjólk af saudfénu, med feiti bilklambanna, med hrútum sem hafa geingid á Basan, og kjarnhøfrum med hinu besta hveiti, og þú fékkst ad drekka vínberjablód. 15. En þegar Israel vard fullur og feitur, fór hann ad gjørast rembilátur; þú ert ordinn feitur, sællegur og digur. Þá yfirgaf hann Drottinn sínn skapara, og forsmádi hellu síns hjálprædis, 16. og hann vakti hans vandlætíngu med þeim útlendu gudum, med sínum svívirdíngum egndi hann hann til reidi. 17. Þeir offrudu vættum enn ekki Gudi, Gudum sem þeir ei þekktu, nýkomnum úr nágrenninu, sem fedur ydar heidrudu ekki. 18. Þú yfirgafst þad hellubjargid sem þig hafdi fædt, og gleymdir þeim Gudi sem þig hafdi skapad. 19. Þetta sá Drottinn og hratt frá sér í reidi sonum sínum og dætrum, 20. og sagdi: eg vil byrgja mitt andlit fyrir þeim, og sjá hvørnig þeim muni reida af, því þad er umhverf þjód, þad eru ótrygg børn. 21. Þeir hafa vakid mína vandlætíngu med því sem ekki er Gud, þeir hafa ýft mig med sínni afgudadýrkun. Því vil eg vekja þeirra vandlætíngu, med því sem ekki má þjód heita, eg vil ýfa þá med fávísu fólki. 22. Því kviknadur er eldur minnar reidi, og hann skal brenna allt til hinna nedstu undirdjúpa, hann skal eyda landinu med þess gróda, hann skal blossa í fjallanna grundvelli. 23. Eg vil hlada á þá øllum óhøppum, eg vil eyda á þá øllum mínum ørfum. 24. Þeir skulu gánga saman af húngri, og veslast upp af sjúkdómum og pestnæmum sóttum. Eg vil hleypa inná þá dýra tønnum og høggorma eitri. 25. Utífrá munu sverdseggjar, en heima mun hrædslan fækka þeim, eins ýngismønnum og meyum, sem brjóstmylkíngum og hærumønnum. 26. Eg skyldi segja: eg vil tvístra þeim, eg vil afmá þeirra minníng hjá mønnum, 27. ef eg óttadist ei ad óvinir þeirra mundu ýfa mig, ad mótstødumenn þeirra mundu stæra sig, og segja: vor máttur er mikill, ei hefir Drottinn gjørt þetta allt. 28. Því þetta er þjód sem er ordin ráðlaus, og í henni er eingin hyggni. 29. O! ad þeir væru hyggnir, sæu þetta og skynjudu hvad á eptir kémur. 30. Hvørnig gjæti einn elt þúsund af þeim, og tveir rekid á flótta tíu þúsundir, ef ekki þeirra hellubjarg hefdi selt þá, og Drottinn yfirgéfid þá, 31. (— þvíad vort bjarg er ekki eins og þeirra bjarg, þarum eru jafnvel óvinir vorir vitni). 32. Þeirra vínvidur er af Sódóma vínvidi, og af Gomorras akurløndum. Þeirra vínber eru eitrud, og beiskar þeirra þrúgur. 33. Þeirra vín er drekans ólyfjan, og óttalegt nødrunnar eitur. 34. Er ekki þetta geymt hjá mér, og innsiglad í mínum hirdslum? 35. Hefndin er

mín, eg vil endurgjalda á sínum tíma, þá mun
fótur þeirra skridna, sannlega færist nær dagur
þeirra óláns, og því fleygir framm sem fyrir
þeim liggur. 36. En þá Drottinn hefir dæmt
sitt fólk, og er farinn ad aumkast yfir sína þén-
ara, og hann sjer øll hjálp er úti, og ad þar
er einginn framar til laus né bundinn, 37.
þá mun hann segja: hvar eru nú gudir þeirra,
bjargid sem þeir reiddu sig á. 38. Sem átu
þad feita af þeirra fórnum, og drukku vínid af
þeirra drykkjaroffri, standi þeir nú upp og
hjálpi ydur, séu þeir nú ydar hlíf. 39. Sjá-
id því nú, ad eg er sá eini, og ad einginn er
Gud nema eg; eg kann ad deyda og lífga, eg
kann ad særa og græda, og einginn dregur mér
úr hendi. 40. Eg vil fórna minni hendi til
himins og sverja: svo sannarlega sem eg er ei-
lífur, 41. þá vil eg hvessa mitt leyptranda
sverd, og leggja hønd á dóminn, eg vil gjalda
hefndir mínum óvinum, og hegna þeim sem mig
hata. 42. Mín skeyti skal eg drukkin gjøra
af blódi, og mitt sverd skal svelgja kjøt, af blódi
þeirra drepnu og herteknu, (af holdi) þeirra
yppurstu medal óvinanna. 43. Prísid, þid þjódir!
sælan hans lýd, því hann mun hefna blóds sínna
þénara, hann mun gjalda hefndir sínum óvinum, og
hann mun aptur blídkast vid sitt land og sitt fólk.

44. Móses kom, ásamt med Jósúa Núnssyni,
og bar øll ordin í þessum sálmi fram ad á-
heyrandi lýdnum. 45. Þegar Móses hafdi nú
lokid øllum sínum rædum til alls Ísraels, 46.
þá sagdi hann vid þá: leggid nú á hjartad øll
þau ord sem eg í dag hefi flutt ydur, og
leggid svo fyrir ydar børn, ad þau einnig geymi
þau, og breyti eptir øllum greinum þessa løg-
máls, 47. því þessar greinir eigu ekki ad álít-
ast fánýtar af ydur, heldur er ydar líf undir
þeim komid, og þær sømu løgmáls greinir
munu leingja ydar lífdaga í því landi sem þér
nú farid yfirum Jórdan til ad eignast.

48. Á þessum sama degi sagdi Drottinn
vid Móses: 49. fardu þarna uppá fjallid A-
barim, þar sem þad kallast Nebo, í Móabíta-
landi á móts vid Jerikó, og skoda Kanaans-
land, sem eg ætla ad géfa Ísraelsbørnum til
eignar; 50. þegar þú ert kominn þángad upp,
þá skaltu deya þar á fjallinu, og safnast til
landa þinna, einsog bródir þinn Aron andad-
ist á fjallinu Hór, og safnadist til landa sínna.
51. Vegna þess þér misbrutud á móti mér, í
nærveru Ísraelsbarna, hjá Kífsvatni í Kades,
í eydimørkinni Sín, af því þér heidrudud mig
ekki medal Ísraelssona; 52. þessvegna skaltu
einasta þvert yfir frá þér, sjá þad land sem eg
vil géfa Ísraelssonum, en sjálfum skal þér ei-
audid verda ad komast þángad.

## 33. Kapituli.

*Móses blessar Ísrael undir andlátid.*

1. Þessi er sú blessan med hvørri Móses,
sá Guds madur, blessadi Ísraelsbørn ádur enn
hann deydi: 2. Drottinn! svo mælti hann,
kom frá Sína, hann upprann þeim í Seir,
byrtist á fjallinu Paran, og kom med margar
þúsundir heilagra, til hans hægri handar var
eldur þeim til løgmáls.

3. Víst elskar þú allan lýdinn, og allir þín-
ir heilagir eru undir þinni hendi, þeir settu
sig hjá þínum fótum, og tóku á móti þínum
skipunum, 4. Móses bodadi oss løgmálid, þad
ódalid Jakobs safnadar; 5. hann var því Ís-
raels Konúngur ætíd þegar høfdíngjar fólksins
komu saman og Ísraels kynkvíslir.

6. Rúben lifi og deyi ekki, og alþýda hans
sé talsverd.

7. Um Júda sagdi hann: heyrdu, Drottinn!
raustu Júda! leiddu hann jafnan heim aptur til
síns fólks, hans hønd sé honum nóg og hjálpa
honum móti hans óvinum.

8. Um Leví sagdi hann: Thummim og Urim skal tilfalla þínum trúlynda þénara, nefnil: Aron, hvørs þú freystadir hjá Massa og ástaldir hjá Kífsvatni.

9. Sá er segir um fødur sinn og módur sína, eg sje hann ekki, og um sinn bródur, eg þekki hann ekki, og um sinn son, eg veit ekki af honum, en heldur þín ord og vardveitir þinn sáttmála *).

10. Þessir *) munu læra Jakob þín réttindi, og Ísrael þitt løgmál, þeir skulu bera reykélsi fyrir þín vit, og brennioffur á þitt altari; 11. Drottinn! blessa hans eignir, lát þer velþóknast hans fyrirtæki, brjót þá á bak aptur sem setja sig upp á móti honum og hata hann, svo þeir standi ekki upp aptur.

12. Um Benjamín sagdi hann: þú Drottins elskulegi skalt búa óhultur, og sá hædsti mun hlífa honum æfinlega, og hann skal búa millum hans herda.

13. Um Jósep sagdi hann: hans land blessi Drottinn, med himinsins kostulegustu gjøf, med døgg, og uppsprettulindum sem dyljast í undirdjúpunum, 14. med hinum ágjætustu ávøxtum sólarinnar, og hinum bestu ávøxtum túnglsins.

15. Med þeim ágjætu ávøxtum á þeim gømlu háfjøllum, og þeim æfinlegu hálsum; 16. med þeim dýrdlegustu ávøxtum jardarinnar sem hún er full af fyrir hans nád sem bjó í runnanum; (Ex. 3. 2); komi allt þetta yfir høfud Jóseps, yfir hvirfil þess gøfugasta medal sinna brædra; (Gen 49, 26); 17. hans fegurd sé einsog frumgétins uxa, og hans horn séu sem einhyrníngs horn, med hvørjum hann stángi þjódirnar til samans allt til landsins ummerkja, hér meinast Efraims 10 þúsundir, og þær Manassis þúsundir.

18. Um Sebúlon sagdi hann: gled þig, þú Sebúlon! í þínum útvegi. Og þú Íssaskar! gled þig í þínum landtjøldum. 19. Þeir munu kalla fólkid uppá fjallid og offra þar tilhlýdilegu offri, því þeir munu njóta sjáfarins gnægta, og fjársjódanna sem hyljast í sandinum.

20. Um Gad sagdi hann: vegsamadur sé sá (Gud) sem færir út Gad; hann mun búa sem ljón, og sundurrýfa handleggina og hvirfilinn.

21. Hann sáfrumburdinn þess fyrirheitna lands, því þar var parturinn sá, sem sá heidradi fyrirlidinn (Móses) hafdi géfid þeim. En hann (nl. Gad) á ad gánga á undan fólkinu, og uppfylla þannig Drottins vilja og skyldu sína medal Ísraelíta.

22. Um Dan sagdi hann: Dan er úngt ljón sem kémur støkkvandi ofanaf Basan.

23. Um Neftali sagdi hann: Neftali skal mettur verda af nád og saddur af blessun Drottins, hann skal nema land ad sjó og sudri.

24. Um Asser sagdi hann: Asser veitist mikil blessun af børnum, hann sé þekkur sínum, brædrum og hann drepi fæti sínum í vidsmjør; 25. járn og kopar skal vera í þínum lásum, þú skalt eiga náduga daga.

26. Enginn Gud er líkur Ísraels Gud, sem keyrir á himninum þér til hjálpar, og hvørs dýrd er í skýunum — 27. þar er bústadur þess Guds sem er frá upphafi, og þarfyrir nedan er

V. 8. Urim og Thummim, sjá Ex. 28, 30. Lev. 8, 8. Esra. 2, 63. Neh. 7, 65. og einkanlega Num. 27, 21. hvørnig þetta var í hátt og hvørnig eiginlega brúkad vita menn ekki — þad var í brjóstskyldi ypparsta prestsins, annadhvørt utaná honum, eda innaní. Mun yppársti presturinn í vandasomum tilfellum, hvar hann ei þóktist sjálfur einhlýtur til úrskurdar, hafa tekid á þeim eitthvørt þad mark, ad hann eptir þeim gaf úrskurdinn, sýnast því þessir hlutir, hvad sem í þeim var, ad hafa verid nokkurskonar andlegt hlutkésti. Vist vóru hlutkéstir brúkadir af Gydingum, Jós. 7, 13—21. 1 Sam. 14, 41. Ordskv. 16, 33. einkum í vøndum málum, til annadhvørt ad uppgøtva þann seka, eda skéra úr deilum. Er því ei ólíklegt ad Urim og Thummim hafi kallast þeir hlutir, sem menn brúkudu til svoddan úrskurda, þá menn ætludu ad Drottinn med þeim leiddi réttindin í ljós. V. 9. *) Hér er Aron hrósad fyrir þad, ad hann ei muni rángt gjøra, eda gjøra sér mannamun, hvør sem í hlut eigi, þó fadir væri og s. frv. V 10. *) Nefnil. Aron og hans eptirkomarar Levitarnir. V. 19. Í Sebúlona sveit var høfnin Acco, og rann þar út áin Belus sem velti med sér glersandi, úr hvørjum fyrst var tilbúid glas. V. 20. Sbr. Gen. 49, 9.

hans eilífi armleggur, hann mun reka áundan sér þína óvini, og segja: eyddu þeim.

28. Ísrael skal ugglaus búa og útaf fyrir síg, Jakobs brunnur*) skal vera á því landi hvar korn og vín er, líka skal hans himin drjúpa af døggu. 29. Sæll ertu Ísrael! hvør er þinn líki! þú lýdurinn hvørn Drottinn verndar, þinn hlýfarskjøldur, og þitt frægdar sverd; þínir óvinir munu lúta fyrir þér, og þú munt frambruna á þeirra hædum.

## 34. Kapítuli.

Daudi og greftrun Móses.

1. Móses gékk sídan af Móabíta velli uppá fjallid Nebo, á gnýpu fjallsins Pisga, ámótsvid Jerikó, þadan sýndi Drottinn honum gjørvallt landid Gilead allt til Dan, 2. og allt Neftali og Efraim og Manasse land og allt Júdaland allt til vesturhafsins, 3. og í móti sudri þad slétta dalverpi kríngum Jerikó sem líka nefnist Pálmavidarborgin, allt til Sóar; 4. og Drottinn sagdi vid hann: þetta er landid, sem eg sór Abraham, Ísaak og Jakob, segjandi: eg vil géfa þínu sædi þad; þú hefir nú sjed þad med þínum augum en ei skaltú sjálfur komast þángad yfirum. 5. og Móses, sá Drottins þénari, andadist þar, í Móabítalandi, eptir ordi Drottins, 6. og hann var jardadur í dalverpi nokkru í Móabítalandi, á mótsvid Bet-Peor, og einginn madur veit enn til þessa dags hvar grøf hans er. 7. Móses var hundrad og tuttugu ára gamall, þá hann létst, honum glaptist ei sýn, og ei þverradi máttur hans.

8. En Ísraelsbørn grétu Móses í þrjátíu daga á sléttu vøllunum í Móabítalandi, og þarmed endudu gráts og sorgardagar eptir Móses.

9. Jósúa Núnsson var gjæddur miklum vísdómsanda, því Móses hafdi lagt hendur sínar yfir hann, og Ísraels børn hlýddu honum, og gjørdu einsog Drottinn hafdi bodid Móses. 10. En aldrei sídan reis upp í Ísrael slíkur spámadur sem Móses hafdi verid, hvørn Drottinn umgeingist svo augliti til auglitis, 11. því Drottinn hafdi gjørt hann út til ad gjøra svo mørg teikn og furduverk í Egyptalandi á Faraó, hans hirdmønnum og øllu hans landi, 12. og svo mørg afreksverk og mikil furduverk sem Móses gjørdi ad ásjáandi øllum Ísraelítum.

# Jósúa Bók.

## 1. Kapítuli.

Jósúa tekur vid herstjórninni.

1. Eptir fráfall Guds þénara Mósis, taladi Drottinn vid Jósúa Núnsson þjón Mósis: 2. minn þjón Móses er andadur; tak þig upp og far yfir Jórdan, þú og allt þetta fólk, inn í þad landid, er eg hefi géfid Ísraelsmønnum 3. Sérhvørn þann stad, er þér setjid fót á, hefi eg géfid ydur, eins og eg hét Móses. 4. Ydar landamerki skulu vera frá þessari eydimørku og Líbanons fjalli til þess mikla vatnsfalls Frat, allt land Hetítanna, og til hins mikla hafs gégnt sólseturs stad. 5. Enginn skal géta mótstadid þér um æfi þína; eg vil vera med þér, eins og eg var med Mósi, aldrei skal eg yfirgéfa þig, og ekki frá þér víkja. 6.

*) V. 28. Adr: auga.

Vertu hughraustur og ókvídinn, því þú skalt
medal fólksins skipta því landi, sem eg sór fedr=
um þess ad géfa því. 7. Haf þú ad eins hug
og einurd, til ad halda og gjøra í øllum hlut=
um eptir løgmáli því, sem þjón minn Móses
baud þér; vík þarfrá hvørki til hægri né vinstri,
svo þú verdir vís í øllu því, sem þú tekur þér
fyrir. 8. Legg ekki þessa løgmálsbók frá þér,
heldur hugsa um hana dag og nótt, svo þú
megir halda og breyta í øllum hlutum eptir því,
sem í henni skrifad stendur, þá skulu þér og vel
heppnast øll þín fyrirtæki, og þú verda vís.
9. Gæt þess, eg hefi bodid þér, ad vera hug=
hraustur og øruggur, óttast ekki né hrædast, því
eg Drottinn þinn Gud, er med þér, hvørt sem
þú fer.

10. Þá skipadi Jósúa høfdíngjum fólksins:
11. Farid um herbúdirnar og bjódid fólkinu
ad hafa til reidu veganesti, því ad þriggja daga
fresti skulud þér fara yfir þessa Jórdan, til ad
fara inn og taka þad land, sem Drottinn yd=
ar Gud géfur ydur ad eign. 12. En Rúbens
og Gads nidjum og þeirri hálfu Manassis kyn=
kvísl sagdi Jósúa: 13. minnist þess, er Drott=
ins þjón Móses baud ydur: Drottinn ydar
Gud hefir veitt ydur hvíld, og géfid ydur þetta
land. 14. Látid konur ydar, børn og kvikfénad
eptir verda hérnamegin Jórdanar, hvar Móses
útskipti ydur landi, en gángid sjálfir, allir vopn=
færir, búnir til bardaga á undan brædrum ydar
og veitid þeim fulltíngi; 15. þángadtil Drott=
inn veitir þeim hvíld, einsog ydur, og þeir
hafa tekid land þad, sem Drottinn ydar Gud
géfur þeim; þá megid þér snúa aptur í ydvart
land, sem Móses Drottins þjón úthlutadi yd=
ur, hérna ad austanverdu vid Jórdan. 16.
Þeir svørudu Jósúa: vér skulum gjøra allt þad
sem þú hefir bodid oss, og fara hvørt sem þú
sendir oss; 17. eins og vér í øllu hlýddum Mó=
ses, eins skulum vér og þér hlýda; veri Drott=
inn þinn Gud, ad eins med þér, eins og hann
var med Móses; 18. hvørr sem þverskallast
gégn þér, og hlýdir ekki þínum ordum í øllu
sem þú býdur oss, skal vera dræpur; vertu ad
eins hughraustur og øruggur.

## 2. Kapítuli.

*Njósnarmenn fara til Jeríkó. Skjækjan Rahab.*

1. Jósúa Núnsson hafdi sendt leynilega tvo
njósnarmenn frá Sittim og sagt þeim: farid
og skodid landid, og Jeríkó. Þeir fóru og
komu í hús skjækju einnar ad nafni Rahab,
og gistu þar. 2. Þetta var sagt Konúnginum
í Jeríkó; sjá! nokkurir menn af Ísraelsfólki eru
í nótt komnir ad njósna í landinu; 3. sendi
þá Jeríkós Kóngur til Rahab, og lét segja
henni: sel fram menn þá, sem til þín eru komn=
ir í þitt hús; því þeir eru komnir til ad njósna
um allt landid. 4. En konan tók mennina
báda, leyndi þeim, og sagdi: satt er þad, menn
komu til mín, en hvadan þeir vóru vissi eg
ekki; 5. en þegar loka skyldi borgarhlidunum,
í røkkrinu, fóru þeir, en ekki vissi eg, hvørt þeir
fóru; farid sem hradast eptir þeim, þá náid
þér þeim. 6. En hún hafdi leidt þá uppá
þakid, og leynt þeim undir vidarull, sem breidd
var á þakid. 7. Mennirnir fóru eptir þeim á
veg til Jórdanar, allt til ferjustadarins, en
borgarhlidinu var læst, þegar leitar mennirnir
vóru út farnir. 8. Ádur enn komumenn geingi
til hvílu, gékk Rahab til þeirra uppá þakid,
9. og sagdi vid þá: eg veit ad Drottinn hefir
géfid ydur land þetta; ótti fyrir ydur er yfir
oss kominn, og allir innbúar landsins hrædast
ydur; 10. því frétt høfum vér, ad Drottinn
þurkadi fyrir ydur vatnid í Raudahafinu, þeg=
ar þér fórud af Egyptalandi, og hvad þér
gjørt hafid þeim tveimur Amoríta Kóngum,
Síhon og Og hinumeigin Jórdanar, ad þér
eyddud þeim med øllu; 11. sídan vér heyrd=

um þetta, er ædra komin í vor brjóst, og eing-
in hugur er í nokkrum manni, þegar ydur skal
mæta, því Drottinn, ydar Gud, er Gud á
himnum uppi, og á jördu nidri; 12. sverjid
mér nú vid Drottinn, ad fyrst eg sýnda ydur
miskun, þá skulud þér og miskun sýna míns
födurs húsi, og géfid mér þarum óbrigdult
merki, 13. ad þér viljid láta födur minn og
módur, brædur mína og systur lífi halda og
allt hvad þeirra er, og frelsa oss frá dauda.
14. Þeir svörudu henni: vér viljum setja vort
líf í ved fyrir ydur, ef þér ekki opinberid þetta
tal okkar; og gefi Drottinn oss land þetta,
skulum vér endurgjalda þér med kjærleika og
trúfesti. 15. Þá lét hún þá í festi síga út
um gluggann, því hús hennar var á múrveggn-
um, og hún bjó á sjálfum borgar-veggnum.
16. Hún sagdi vid þá: farid uppá fjallid, svo
leitarmennirnir hitti ydur ekki og felist þar þrjá
daga, þángadtil þeir eru apturhorfnir sem eltu
ydur, en farid svo leidar ykkrar. 17. Þeir
sögdu vid hana: lausir viljum vér vera frá eidi
þeim, er þú tókst af okkur, 18. þegar vid kom-
um inní landid, þá skaltu binda í gluggann
þetta rauda band, sem þú létst okkur síga nid-
ur í, og hafa samankallad í þitt hús födur
þinn og módur, brædur þína og allt hús föd-
ur þíns. 19. En gángi nokkur útaf húsdyr-
um þínum, þá er hann sjálfur valdur ad sín-
um dauda, en vér sýknir, en verdi hönd lögd
á þann nokkurn, sem í þínu húsi er, þá verdi
okkur hans daudi tilreiknadur. 20. Og ef þú
opinberar þessi okkar erindi, erum vér lausir
frá þeim eidi, er þú tókst af okkur. 21. Hún
sagdi: veri þad, eins og þér segid; lét hún
þá svo fara, og þeir fóru, en hún batt hid rauda
band í gluggann. 22. Geingu þeir sídan, þar
til þeir komu á fjallid, og dvöldu þar í þrjá
daga, þar til þeir voru aptur heim komnir, er þeim
veittu eptirförina, þeir höfdu leitad þeirra á öll-
um vegum og ekki fundid. 23. Hvurfu þá
þessir tveir menn aptur, og geingu af fjallinu,
fóru yfirum ána, komu til Jósúa Núnssonar,
og sögdu honum frá öllu, er þeim hafdi mætt.
24. Þeir sögdu til Jósúa: Drottinn hefir géf-
id allt landid oss í hendur, því allir innbúar
þess eru felmtsfullir fyrir oss.

## 3. Kapítuli.

For Gydínga yfir Jórdan.

1. Um morguninn var Jósúa snemma á
ferli, og fór med allan Israel frá Sittim til
Jórdanar, og voru þar um nóttina, ádur þeir
færi yfirum. 2. En þremur dögum sídar
geingu höfudsmennirnir um herbúdirnar, 3. og
skipudu fólkinu: þegar þér sjáid sáttmálsörk
Drottins ydar Guds, og prestana Levítana bera
hana, þá farid af stad, og fylgid henni; 4.
látid þó tveggja þúsund álna lángt bil vera
millum ydar og hennar, og gángid ekki nær
henni, svo þér megid sjá þann veg sem þér
eigid ad fara. Því þann veg hafid þér ekki
fyrr farid. 5. Þá sagdi Jósúa fólkinu: helgid
ydur, því á morgun mun Drottinn gjöra dá-
semdarverk, midt á medal ydar; 6. Prestunum
sagdi hann: berid sáttmálsörkina, og gángid á
undan fólkinu! þeir tóku þá sáttmálsörkina, og
geingu á undan fólkinu. 7. En Drottinn sagdi
til Jósúa: í dag mun eg taka til ad mikla þig,
ad öllum Israelítum ásjáendum, svo þeir viti,
ad eg er med þér, eins og eg var med Móses.
8. En bjód þú prestunum, sem bera sáttmáls-
örkina: þegar þér fyrst stígid fæti í Jórdanar
vatn, þá standid þar kyrrir. 9. Þá sagdi Jó-
súa til Israels barna: komid híngad, og heyr-
id ord Drottins ydar Guds: 10. þaraf —
sagdi hann — skulud þér sjá, ad sá lifandi
Gud er medal ydar, og ad hann vissulega mun
frá ydur útreka Kananíta, Hetíta, Hevíta, Fere-
síta, Gergeasíta, Amoríta og Jebúsíta. 11.

Sjá! sáttmálsørk hans, sem er Drottinn allrar veraldar, mun á undan ydur fara yfirum Jórdan, 12. takid nú tólf menn af kynkvíslum Israels, einn mann af hvørri ættkvísl; 13. og þegar prestarnir, sem bera sáttmálsørk Drottins allrar veraldarinnar Herra, hvíla fætur sína í Jórdanar vatni, þá skal vatn Jórdanar kljúfast, vatnid, sem ad ofan kémur, skal standa sem veggur. 14. Þegar fólkid nú fór úr tjøldum sínum til ad fara yfirum Jórdan, þá tóku prestarnir upp sáttmálsørkina í augsýn fólksins. 15. Og þegar þeir, sem ørkina báru, komu ad Jórdan, og drápu fótum sínum fremst í vatnid, (en Jórdan flódi allan uppskéra tímann uppá bakka) 16. þá stód vatnid, sem ofan ad kom, kyrrt, og hóf sig sem veggur mjøg lángt frá, vid þann stad Adam sem er til hlidar vid Sarthan, en þad sem rann nidur ad eydimerkur hafinu eda salta hafinu, rann allt til þurdar; og fólkid fór yfirum gégnt Jeríkó. 17. En prestarnir sem báru sáttmálsørk Drottins, stódu á þurru, midt í Jórdan, og allur Israel gékk yfirum á þurru, þar til allt fólkid var yfir Jórdan komid.

## 4. Kapítuli.

*Tólf steinar uppreistir.*

1. Þegar allt fólkid var yfir Jórdan komid, taladi Drottinn þannig til Jósúa: 2. takid 12 menn, einn mann af hvørri ættkvísl, 3. og bjódid þeim: takid upp tólf steina úr Jórdan midri, úr þeim stad, sem prestarnir stódu og berid þá yfirum ána med ydur og þángad hvar þér hafid náttstad. 4. Þá kalladi Jósúa tólf menn, sem hann tilkvaddi af Israels børnum, einn af hvørri ættkvísl, 5. og sagdi þeim: gángid yfirum á undan ørk Drottins ydar Guds midt út í Jórdan og taki hvørr ydar stein sér á herdar, eins og margar eru kynkvíslir Israels barna, 6. svo þeir séu minnismerki hjá ydur, svo ad nær nidjar ydar spyrja á sídan, hvad steinar þessir merki, 7. þá skulud þér svara þeim, þad, ad Jórdanar vøtn klufust fyrir sáttmálsørk Drottins; þegar hún fór yfirum Jórdan, klufust Jórdanar vøtn; og steinar þessir skulu vera Israels nidjum til ævarandi minníngar. 8. Israels børn gjørdu sem Jósúa lagdi þeim fyrir, og tóku uppúr midri Jórdan tólf steina eptir ættkvísla tølu Israels barna, eins og Drottinn hafdi bodid Jósúa, og fluttu þá med sér þángad sem þeir høfdu náttstad, og létu þá þar eptir. 9. En Jósúa reisti tólf steina í midri Jórdan, þar sem prestarnir, þeir er sáttmálsørkina báru, høfdu stadid; þar eru þeir enn í dag *). 10. En prestarnir, sem ørkina báru, stódu í Jórdan midri, þángad til allt var gjørt, sem Drottinn hafdi bodid Jósúa ad kunngjøra fólkinu, samkvæmt øllu því er Móses hafdi bodid Jósúa; og fólkid flýtti sér yfirum. 11. Þegar allur lýdurinn var yfirum kominn, þá fór og ørk Drottins yfirum, og prestarnir í augsýn fólksins; 12. og Rúbens, Gads og hálf Manassis kynkvísl geingu á undan Israels børnum búnir til bardaga, eins og Móses hafdi bodid þeim; 13. fjørutígi þúsundir herthadra manna geingu framm á Jeríkós vøllu í augsýn Drottins til bardaga. 14. Þannig gjørdi Drottinn Jósúa á þeim degi veglegann fyrir augum allra Israels manna; þeir virdtu hann alla æfi hans, eins og þeir høfdu virdt Mósen.

15. Því næst sagdi Drottinn til Jósua: 16. skipa þú prestunum, sem bera vitnisburdar ørkina **), ad stíga uppúr Jórdan; 17. Jósúa baud prestunum og sagdi: stígid uppúr Jórdan, 18. og jafnsnart og prestarnir sem báru sáttmálsørk Drottins, vóru komnir uppúr Jórdan, og høfdu stígid fótum á þurt land,

*) Nefnl. þegar Jósúabók var ritud. **) Þ. e. ørkina sem bodorda toflurnar voru í.

féll Jórdanar vatn aptur í sinn farveg, og hún
vard, sem ádur, bakkafull. 19. Pad var á tí-
unda degi hins fyrsta mánadar, ad fólkid fór
yfirum Jórdan, og slóu tjøldum í Gilgal ytst
fyrir austan Jeríkó. 20. Par í Gilgal reisti
Jósúa þá tólf steina, sem þeir høfdu tekid úr
Jórdan; 21. sagdi hann þá til Israels barna:
þegar nidjar ydar á sídan spyrja fedur sína, og
segja: hvad merkja þessir steinar? 22. skulud
þér segja þeim: Israel gékk á þurru yfir þessa
Jórdan; 23. því Drottinn ydar Gud þurkadi
fyrir ydur vøtn Jórdanar, þar til þér vorud
komnir yfirum, eins og Drottinn ydar Gud
gjørdi fordum vid hafid rauda, er hann þurk-
adi þad fyrir oss, medan vér fórum yfirum
þad; 24. svo ad allar þjódir á jørdu þekki
hønd Drottins, ad hún er sterk, svo ad þér
óttist Drottinn ydar Gud, alla daga.

## 5. Kapítuli.

Israelsborn eru umskorin, halda páska; vitrun Jósúa.

1. Pegar Amorítanna Kóngar fyrir vestan
Jórdan, og allir Kananíta Konúngar vid haf-
id *) heyrdu, ad Drottinn hafdi þurkad Jórd-
anar vatn fyrir Israel, medan þeir fóru þar
yfir, þá ædrudust þeir, og þeim féllst hugur
fyrir Israelsbørnum.

2. Á þeim tíma sagdi Drottinn vid Jósúa:
gjør þér steinknífa, og umskér Israelssonu ød-
ru sinni; 3. lét þá Jósúa gjøra steinknífa, og
umskar Israelssonu, á yfirhúdar hædinni. 4.
Sú var orsøkin, hvørsvegna Jósúa umskar þá:
allt kallmanna fólkid, sem fór út af Egypta-
landi, allir vopnfærir menn høfdu dáid á leid-
inni í óbygdinni; 5. allt fólkid, sem út fór, var
umskorid, en allt þad fólk, sem fædst hafdi á
leidinni í óbygdinni eptir útgaungu þess af
Egyptalandi var óumskorid; 6. því Israel ferd-
adist í 40 ár í óbygdum, þángadtil allir þeir
vopnfæru, sem af Egyptalandi fóru, vóru dán-
ir, af því þeir høfdu verid óhlýdnir Drottni,
svo Drottinn sór, ad þeir ekki skyldu sjá þad
land, sem Drottinn hafdi svarid fedrum þeirra,
ad hann vildi géfa oss, þad landid, sem flýtur
af mjólk og hunángi; 7. syni þeirra, sem upp
vóru komnir í þeirra stad, umskar Jósúa, því
þeir høfdu yfirhúd, og høfdu ekki verid um-
skornir á ferdinni. 8. Pegar nú allir vóru um-
skornir, héldu þeir kyrru fyrir hvørr á sínum
stad í herbúdunum, þángadtil þeir vóru grónir.
9. Pá sagdi Drottinn til Jósúa: í dag hefi
eg burt tekid frá ydur svívirdíngu **) Egypta-
lands, og kallast því þessi stadur enn í dag Gilgal.

10. Israelsmenn láu í herbúdum sínum í
Gilgal, og héldu páska á Jeríkós vøllum, ad
kvøldi þess fjórtánda dags mánadarins; 11.
og átu af landsins gróda frá ødrum páskadegi,
ósýrt braud og steikt øx, einmidt á sama degi.
12. Daginn eptir ad þeir høfdu etid af lands-
ins gróda, þraut Manna, og þadan í frá høfdu
þeir ekki Manna, heldur átu þeir þad árid á-
vøxtu Kanaanslands.

13. Pad bar til, þegar Jósúa var hjá Jerí-
kó, ad hann leit upp, og sá, hvar madur stód
gégnt honum med brugdnu sverdi; Jósúa gékk
til hans og spurdi hann: ertú af voru lidi, eda
óvinanna! 14. hann svaradi: nei! heldur er eg
hershøfdíngi Drottins, og nú er eg kominn!
Pá féll Jósúa fram á ásjónu sína til jardar,
tilbad og sagdi: hvad býdur minn Herra þjóni
sínum? 15. Pá sagdi hershøfdíngi Drottins:
drag þína skó af fótum þér, því sá stadur, er
þú stendur á, er heilagur; og Jósúa gjørdi þad.

## 6. Kapítuli.

Jósúa vinnur Jeríkó.

1. Jeríkó hafdi læst portum sínum og var

*) P. e. Midjardarhafid. **) P. e. eptirleifar af hjágudadýrkun og annari heidni, sem Gydingar høfdu vanist á í Egyptalandi og undir eins endurnýad þann sáttmála, sem gjørdur var vid Abraham, 1 Mós. 17, 8 — 13.

umsetin af Ísraels børnum, svo einginn komst þar út né inn; 2. En Drottinn sagdi vid Jósúa: sjá! eg hefi gefid Jeríkó, hennar Konúng og hraustamenn í þitt vald, 3. gángid þér allir strídsmennirnir kríngum borgina, gángid kríngum hana einusinni og gjørid svo í sex daga; 4. beri sjø prestar þær sjø fagnadar básúnur á undan ørkinni; en á þeim sjøunda degi, þá gángid sjøsinnum kríngum borgina, og látid prestana blása í básúnurnar. 5. Þegar blásid er í fagnadar hornid, og þér heyrid hljóm básúnunnar, æpi þá fólkid heróp mikid, skulu þá borgarveggirnir hrynja, og fólkid komast inn beint af augum. 6. Þá kalladi Jósúa Núnsson á prestana, og sagdi til þeirra: berid sáttmálsørkina, og sjø prestar beri sjø fagnadar básúnur undan ørk Drottins, 7. og fólkinu sagdi hann: gángid framm og farid í kríngum borgina og hvørr hertýgjadur madur gángi á undan ørk Drottins. 8. Þegar Jósúa hafdi talad til fólksins, geingu þeir sjø prestar fram, sem báru sjø fagnadar básúnur fyrir augliti Drottins, og blésu í básúnurnar, og sáttmálsørk Drottins kom á eptir þeim, 9. og þeir sem herklæddir voru geingu á undan prestunum, þeim sem í básúnurnar blésu, en hinir adrir fylgdu eptir ørkinni, og blésu í básúnurnar; 10. En Jósúa baud fólkinu: þér meigid ekki æpa heróp, og ekki láta ydar raust heyra, og ekkért ord útgánga af ydar munni, allt til þess dags ad eg segi ydur: æpid heróp! þá skulud þér æpa heróp. 11. Þannig gékk ørk Drottins einusinni kríngum borgina, sídan geingu menn til herbúdanna, og voru þar um nóttina. 12. Annars dags var Jósúa árla á fótum, báru þá prestarnir ørk Drottins; 13. og þeir sjø prestar, sem báru þær sjø fagnadar básúnur á undan Drottins ørk, geingu alltaf og blésu í básúnurnar, en þeir sem vopnadir voru geingu fyrir þeim, en hinir adrir geingu á eptir Drottins ørk, og blésu í básúnurnar; 14. Næsta dag geingu þeir einusinni kríngum borgina, fóru sídan í herbúdirnar, svo gjørdu þeir í sex daga. 15. Þann sjøunda dag voru þeir á ferli í døgun, og geingu sjø sinnum kríngum borgina med sama hætti, einúngis ad þeir á þessum degi fóru sjø sinnum kríngum borgina. 16. Þegar prestarnir í sjøunda sinni blésu í básúnurnar, sagdi Jósúa fólkinu: æpid heróp, Drottinn hefir gefid ydur borgina; 17. en borg þessi, sagdi hann, og allt hvad í henni er, skal vera bannfærd fyrir Drottni *); skjækjan Rahab ein skal lífi halda, og allir þeir sem í hennar húsi eru, því hún leyndi þeim mønnum, er vér sendum; 18. gjætid ydar ad eins fyrir því bannfærda, ad þér ekki færid bann yfir ydur sjálfa, ef þér takid nokkud af því, sem bannfært er, og leidid þannig bølvun og fordjørfun yfir Ísraels herbúdir; 19. allt silfur og gull, allt hvad af kopar eda járni er smídad, skal vera Drottni helgad, og koma í féhirdslu Drottins. 20. Fólkid æpti þá heróp, og blésu í básúnurnar, þegar þad heyrdi hvell básúnanna, æpti þad heróp mikid; múrarnir hrundu þá, og fólkid gékk inní borgina, hvør hid gégnsta framm frá sér; 21. þannig unnu þeir borgina, og lýstu banni yfir øllu sem í henni var, menn, kvinnur, únga og gamla, naut, saudi og asna, og drápu þad allt. 22. En Jósúa sagdi þeim tveimur mønnum sem njósnad høfdu um landid: farid í hús skjækjunnar, leidid hana út og alla hennar, eins og þér sórud henni. 23. Þá geingu þeir úngu njósnarmenn þar inn, og leiddu Rahab, fødur hennar og módur, brædur hennar og hjú og alla hennar ættmenn, útúr borginni, en létu hana vera fyrir utan herbúdir Ísraels; 24. en borgina brendu þeir og allt hvad í henni

*) Sjá 3 Mós. 27, 28.

var, einasta silfur og gull, kopar og járnsmidis gripi løgdu þeir í féhyrdslu Drottins húss. 25. Skjækjunni Rahab og ætt hennar gaf Jósúa líf, og bjó hún allt til þessa dags medal Israels manna fyrir það hún fól þá menn sem Jósúa hafdi út sendt, ad njósna um Jerikó.

26. Þá sór Jósúa þannig: bølvadur veri sá madur í augliti Drottins, sem fer til og byggir upp þenna stad Jerikó; þegar hann leggur grundvøll hans, kosti þad hans frumgétna son, en þegar hann reisir hans port, gyldi þad hinn ýngsta son hans;

27. Þannig adstodadi Drottinn Jósúa, og hans frægd barst um allt landid.

## 7. Kapítuli.

*Akan stelur af herfánginu.*

1. En Israels menn høfdu stórlega syndgast á því bannfærda; Akan Karmison Sabdisonar Seraksonar af Júda kynkvísl hafdi tekid nokkud af því bannfærda; því reiddist Drottinn Israels mønnum.

2. Jósúa sendi menn frá Jerikó til Aí sem liggur nálægt Betaven fyrir austan Betel, og sagdi þeim: farid og njósnid um landid, þeir fóru, njósnudu í Aí, 3. komu aptur til Jósúa og søgdu honum: lát ekki allt fólkid fara upp þángad, heldur hérum 2 eda 3 þúsundir, þad nægir til ad vinna Aí; en fólkid ómaki sig ekki allt, því þeir eru fálidadir; 4. þángad fóru hérumbil 3 þúsundir af fólkinu, en þeir flýdu fyrir Aís mønnum; 5. og Aís menn feldu þrjátígi og sex af þeim, ráku þá frá portunum til Sebarim, og slóu þá nidureptir veginum; þá ædradist fólkid, og misti huga. 6. Þá reif Jósúa sín klædi, féll framm á ásjónu sína til jardar fyrir ørk Drottins og lá þar til kvølds, hann og øldúngar Israels, og jusu moldu yfir høfud sér; 7. og Jósúa sagdi: ó Drottinn Gud! því leiddir þú fólk þetta yfir Jórdan, til ad selja oss Amorítum í hendur, ad þeir eydileggi oss? ó! ad vér hefdum rádid þad af ad vera kyrrir hinumeigin Jórdanar! 8. Heyr mig Drottinn! hvad skal eg segja, nú þegar Israel flýr fyrir óvinum sínum? 9. Þegar Kananítar og adrir landsins innbúar spyrja þetta munu þeir umkríngja oss, og afmá oss af jørdunni, med hvørju viltu þá vidhalda þínu mikla nafni? 10. Þá svaradi Drottinn Jósúa: statt upp! því liggur þú hér framm á ásjónu þína? 11. Israel hefir syndgad, þeir hafa yfirtrodid minn sáttmála, sem eg baud þeim (ad halda); þeir hafa tekid af því bannfærda, stolid, logid, og lagt þad hjá sínum fjárhluta! 12. Israels menn skulu nú ei fá stadist fyrir sínum óvinum, heldur flýa fyrir þeim, því þeir eru í banni; hér eptir vil eg ekki vera med ydur, ef þér ekki afmáid þá bølvun, sem medal ydar er. 13. Stattu upp, og helgadu fólkid, og segdu því: helgid ydur til morguns, því svo segir Drottinn Israels Gud: bannfært fé er (geymt) hjá þér Israel og þú gétur ekki stadist gégn óvinum þínum, fyrr enn þér hafid því banni af ydur komid. 14. Á morgun snemma skulud þér mæta eptir ydar ættkvíslum, og sú ættkvísl, sem Drottinn hittir á, skal mæta eptir kynþáttum og hvørr kynþáttur sem Drottinn hittir á, skal mæta eptir ættum, og sú ætt sem Drottinn hittir á, skal mæta mann fyrir mann; 15. og hjá hvørjum sem þad bannfærda finnst, sá skal brennast í eldi og allt hvad hann hefir, þared hann braut bod Drottins og drýgdi glæp í Israel.

16. Daginn eptir var Jósúa snemma á fótum, og framleiddi Israel eptir ættkvíslum, og kom hlutur á ættkvísl Júda. 17. Og sem hann leiddi fram kynþætti Júda, féll hlutur yfir Seraks kynþátt; sídan lét hann Seraks kynþátt framgánga, einn húsfødur eptir annann, þá

féll hlutur yfir Sabdi; 18. og síðan lét hann ætt hans framgánga, hvørn húsbónda eptir annann, féll þá hluturinn yfir Akan Karmíson Sabdísonar Serakssonar af Júda ættkvísl. 19.
Þá sagdi Josúa til Akans: Sonur minn! géf þú Drottni Ísraels Gudi dýrdina, og gjørdu játníngu fyrir honum! seg mér, hvad hefir þú gjørt? leyn mig aungvu. 20. Akan svaradi og sagdi: sannlega hefi eg syndgad gégn Drottni Ísraels Gudi, svo og svo gjørdi eg: 21. eg sá medal herfángsins kostulega babýloniska kápu, tvø hundrud sikla silfurs, og gullspaung eina, fimtíu sikla ad vigt; þetta ágirntist eg, og tók þad, og sjá! þad er í jørdu grafid í tjaldi mínu og silfrid þarundir; 22. Jósúa sendi þá menn þángad, þeir runnu til tjaldsins, og sjá! þad var fólgid í hans tjaldi, og silfrid þarundir.
23. Þeir tóku þad úr tjaldinu, báru þad til Jósúa og allra Ísraelsmanna, og løgdu þad framfyrir Drottinn; 24. þá tók Jósúa og allur Ísrael med honum Akan Seraks nidja, silfrid, kápuna, gullspaungina, syni hans og dætur, uxa hans, asna, saudfé og tjald og allt hvad hann átti, og flutti þad upp í Akors dal, 25. og Jósúa sagdi til hans: hví hefir þú hrellt oss? Drottinn skal hrella þig í dag! og allur Ísrael lamdi hann grjóti, og brendi þá í eldi, og grýtti þá, 26. køstudu þeir saman grjóthaugi stórum yfir þeim, sem enn sjer merki til; svo lét Drottinn af sinni brennandi reidi, og þar af kallast þessi sami stadur Akorsdalur allt til þessa dags.

## 8. Kapítuli.

Unnin Aí; altari bygt á Ebalsfjalli.

1. Drottinn sagdi til Jósúa: óttastu ekki og vertu óhræddur, tak med þér alla vopnfæra menn, tak þig upp og rádst á Aí; sjá! eg hefi géfid Kónginn af Aí og hans fólk, borg og land í þínar hendur; 2. eins skaltú gjøra vid Aí og hennar Kóng, einsog þú gjørdir vid Jerikó og hennar Kóng, ad því undanteknu, ad nú megid þér taka herfáng og fénad til ydar. En nú skaltu setja launsátur fyrir vestan borgina.
3. Þá bjó Jósúa sig med øllum vopnfærum til ad fara upp til Aí, en útvaldi þrjátíu þúsund hrausta menn, sendi þá burt um nóttina,
4. og skipadi þeim: gétid gjætur ad, þér sem eigid ad vera í launsátri fyrir vestan borgina, ad þér séud ekki mjøg lángt frá henni; verid allir reidubúnir; 5. sjálfur mun eg med alla mína menn fara til stadarins, og sem borgarmenn, einsog ádur, fara út í móti oss, munum vér flýa undan þeim; 6. og þegar þeir hafa farid á eptir oss, þartil vér høfum lokkad þá nokkud frá borginni, því þeir munu segja: þeir flýa fyrir oss, sem í fyrra sinni, og vér flýum fyrir þeim líka: 7. þá skulud þér spretta upp úr launsátrinu, og taka stadinn, því nú mun Drottinn ydar Gud géfa hann á ydar vald;
8. en þegar þér hafid unnid hann, skulud þér kveikja eld í honum; gjørid eptir ordi Drottins! því sjáid! eg hefi skipad ydur þetta. 9.
Þá sendi Jósúa þá af stad, og þeir fóru í launsátrid, og stadnæmdust millum Betel og Aí vestanverdt vid Aí, en Jósúa var um nóttina hjá fólkinu. 10. Morguninn eptir var hann snemma á fótum, kannadi lidid, gékk sjálfur med øldúngum þjódarinnar undan hernum móti Aí;
11. og allur herinn, sem hjá honum var, fór upp þángad, nálægdu sig og komu gagnvart borginni, þar slóu þeir herbúdum sínum fyrir nordan Aí, svo dalurinn var millum þeirra og Aí; 12. Jósúa tók hérum fimm þúsund manns og setti þá í launsátur millum Betel og Aí vestanverdt vid stadinn, 13. þeir skipudu nú nidur lidinu úr øllum herbúdunum sem vóru fyrir nordan stadinn, og øptustu fylkíngunni vestanverdt vid stadinn; og á þeirri sømu nóttu fór Jósúa yfir dalinn. 14. En sem Konúngurinn

í Aí vard þess var, flýttu borgarmennirnir sér og risu upp árla, og fóru út til stríds mót Ísraelsmönnum, bædi hann og allur hans her, á tilteknum tíma, út á sléttlendid; en hann vissi ekki af ad launsátur var sett móti honum fyrir vestan borgina. 15. En Jósúa og allur Ísrael létust vera slegnir af þeim, og flúdu á leid til eydimerkurinnar; 16. þá var allt fólkid í stadnum kallad til ad reka flóttann, þeir eltu Jósúa, og fjarlægdust þannig stadinn; 17. vard svo ekki einn madur eptir í Aí og Betel, sem ekki færi eptir Ísraelsmønnum, og skyldu þeir stadinn opinn eptir og eltu Ísrael. 18. Þá sagdi Drottinn til Jósúa: útréttu þad spjót, sem þú hefir í hendi þér, gégn Aí, því eg vil géfa borgina á þitt vald; en Jósúa rétti spjótid, er hann hélt á, gégn stadnum, 19. þá spratt launsáturs lidid hratt á fætur og hljóp þegar hann hafdi útrétt høndina, kom inn í borgina, tók hana og flýtti sér og brendi hana med eldi. 20. Þegar Aíbúar litu vid, sáu þeir reykinn, sem lagdi af stadnum til himins, og gátu nú í einga átt flúid, því þeir sem ádur flýdu fyrir þeim á leid til eydimerkurinnar, snéru nú vid og eltu þá, 21. því þegar Jósúa og allir menn hans sáu, ad þeir sem í launsátrinu vóru, høfdu unnid stadinn, og ad reykinn lagdi upp af stadnum, þá snéru þeir vid og slóu Aíbúa; 22. hinir komu þá og úr borginni á móti þeim, svo þeir urdu midt á millum Ísraels manna, sem umkríngdu þá á allar sídur, hjuggu þá nidur, þar til einginn var eptir, og létu aungvann undan komast. 23. En Konúnginum af Aí nádu þeir lifandi og færdu hann Jósúa. 24. Þegar Ísraels menn høfdu lagt ad velli alla Aíbúa, á mørkinni og í eydimørkinni, hvar þeir høfdu elt þá, og þeir allir voru fallnir gjørsamlega fyrir sverdseggjum, þá hurfu allir Ísraels menn aptur til Aí, og hjuggu nidur alla þá sem þar voru. 25. En allir Aíbúar, sem á þeim degi féllu, karlar og konur, voru tólf þúsundir. 26. Ekki dróg Jósúa ad sér hønd sína aptur, med hvørri hann hélt á spjótinu, fyrr enn allir Aíbúar voru vid velli lagdir. 27. En búsmalann og annad herfáng stadarins tóku Ísraelsmenn til sín eptir ordi Drottins, sem hann hafdi bodid Jósúa. 28. Jósúa brendi borgina Aí og gjørdi hana ad æfinlegri eydigrjóthrúgu, sem enn sjer merki til. 29. En Aís Konúng lét hann heingja upp í eina eik, og lét hann hánga til kvølds, en eptir sólsetur lét hann taka líkamann ofan af trénu, og menn køstudu honum út fyrir borgarhlidid, og urpu yfir hann haug mikinn af grjóti, sem þar sjest enn í dag.

30. Þá byggdi Jósúa Drottni Gudi Ísraels altari á fjallinu Ebal, 31. einsog Mósis Drottins þjón bodid hafdi Ísraels børnum, sem skrifad finnst í løgbók Mósis, altari af heilum steinum, sem járn hafdi ekki verid borid á, og fórnfærdi Drottni þar brennifórnum og þakkarfórnum, 32. og skrifadi þar á steinana afskrift af því løgmáli, sem Móses hafdi skrifad fyrir Gydínga. 33. Allur Ísraels lýdur, øldúngarnir, høfdíngjarnir og dómendurnir stódu beggja vegna vid sáttmálsørkina gégnt prestunum, Levítunum, sem báru sáttmálsørk Drottins, bædi útlendir og innlendir, annar helmíngurinn stód á móts vid Grisímsfjall, en hin helftin á móts vid fjallid Ebal, einsog Móses Drottins þjón, ádur hafdi skipad ad blessa Ísraels lýd. 34. Eptir þad las hann upp øll løgmálsins ord bædi blessun og bølvun, øldúngis eins og skrifad stendur í løgbókinni: 35. ekkért af því sem Móses bodid hafdi var úrfelt, allt lét Jósúa lesa þad upp fyrir Ísraels søfnudi, fyrir konum og børnum, og þeim útlendu, sem medal þeirra vóru.

## 9. Kapítuli.

Slægd Gibeonita.

1. Þegar þetta fregnudu Konúngar þeir,

sem bjuggu þessumegin Jórdanar, bæði á fjallinu og sléttlendinu og á allri strønd ens mikla hafs, gagnvart Libanons fjalli, Hetítar, Amorítar, Kananítar, Feresítar, Hevítar og Jebúsítar, 2. gjørdu þeir samband sín á millum med einu samheldi til stríds mót Jósúa og Ísraelsmønnum. 3. En þegar innbúar Gibeonsstadar fréttu, hvørsu Jósúa farid hafdi med Jerikó og Ai, tóku þeir þetta kjænsku ráð: 4. þeir fóru og feingu sér veganesti, tóku gamla sekki á asna sína, og gamla rifna og bætta vínbelgi, 5. gamla bætta skó á fótum, og færdu sig í forn klædi, og allt braud, sem þeir tóku til nestis, var hart og myglad. 6. Þessir menn komu til Jósúa í herbúdirnar vid Gilgal, og søgdu til hans og Ísraelsmanna: frá fjarlægu landi erum vér komnir, gjør sáttmál vid oss! 7. Ísraelsmenn svørudu Hevítum: máské þú búir medal vor; hvørnig meigum vér þá sáttmál vid þig binda? 8. Þeir søgdu þá vid Jósúa: vér erum þínir þjónar! Jósúa spurdi þá: hvørjir erud þér og hvadan komnir? 9. þeir svørudu: vér þínir þjónar, erum frá mjøg fjarlægu landi komnir, fyrir sakir nafns Drottins þíns Guds; því vér høfum feingid fregn um hann og allt það er hann gjørdi á Egyptalandi, 10. og allt hvad hann gjørdi þeim tveimur Amoríta konúngum fyrir handan Jórdan, Sihoni Hesbons konúngi og Basans konúngi Og, sem bjó í Astarot; 11. þessvegna søgdu øldúngar vorir og og landslýdurinn: takid ydur vega nesti, farid til fundar vid þá og segid þeim: vér erum ydar þjónar! gjørid nú sáttmál vid oss; 12. þetta er vort braud, vér tókum það nýbakad, oss til nestis ad heiman, þegar vér fórum af stad til ydar, en sjáid nú! það er ordid þurt og lodid af myglu; 13. og vínbelgir þessir vóru nýir, þegar vid létum á þá, en sjáid! nú eru þeir rifnir; þessi vor klædi og skóføt eru slitin á þessari laungu leid. 14. Þá skodudu (Ísraels) menn nokkud af nesti þeirra, og spurdu ekki Drottinn til ráds; 15. samdi Jósúa þá frid vid þá og það sáttmál ad þeir skyldu lífi halda, og forstjórar lýdsins bundu það svardøgum. 16. En þremur døgum eptir ad þeir høfdu þetta sáttmál bundid, fréttu þeir, ad Gibeonítar mundu adsetur hafa skamt þadan, og búa á medal þeirra *); 17. því Gydíngar tóku sig upp og komu á þridja degi til stada Gibeonítanna, sem vóru Gibeon, Kefíra, Berot og Kirjatjearim; 18. Ísraelsmenn herjudu samt ekki á þá, vegna þess forstjórar lýdsins høfdu unnid þeim eid þarad vid Drottinn Ísraels Gud; en allur lýdurinn møgladi gégn høfdíngjunum. 19. Þá søgdu allir høfdíngjarnir: vér unnum þeim eid í nafni Drottins Ísraels Guds, því meigum vér ekki snerta þá; 20. efna skulum vér ord vor og láta þá lífi halda, svo vér drøgum ekki reidi yfir oss fyrir rof eids þess, sem vér unnum; 21. og enn fremur søgdu høfdíngjarnir vid lýdinn: látum þá lifa, en kljúfi þeir skíd, og beri vatn fyrir allan lýdinn! Eptir þessu atkvædi høfdíngjanna, 22. kalladi Jósúa á Gibeoníta og spurdi þá: hví prettudud þér okkur, og søgdud: vér erum mjøg lángt hédan, en búid þó midt á medal vor? 23. En nú erud þér bølvadir, og þér skulud ávallt þrælar vera, høggva skíd og bera vatn handa húsi míns Guds; þeir svørudu Jósúa og søgdu: 24. oss þjónum þínum hefir verid sannlega sagt, ad Drottinn, þinn Gud, hafi tilsagt þjóni sínum Móses, ad hann vildi géfa ydur allt þetta land, og afmá fyrir ydur alla landsins innbyggendur; því óttudumst vér og høfum af lífhrædslu þetta til bragds tekid; 25. en sjá! nú erum vér á þínu valdi, gjør vid oss hvad þér þykir gott og rétt; 26. þannig breytti Jósúa vid þá, frelsadi þá frá hendi Ísraelsmanna, svo þeir slóu þá ekki í hel. 27. Þenna sama

*) Þ. e. í því landi, sem Gydíngar eignudu sér.

dag setti hann þá til að kljúfa skíð og bera vatn handa lýðnum og altari Drottins, allt til þessa dags, í þeim stað, sem hann útveldi.

## 10. Kapituli.

*Jósúa vinnur sigur á fimm Konúngum Amoríta.*

1. Þegar Adóníseðek, Jerúsalems Konúngur, frétti, að Jósúa hefði tekið Aí, og umturnað henni, og gjört eins við hana og hennar konúng, eins og hann hafði gjört við Jerikó og Konúnginn þar, og að Gibeonítar höfðu samið frið við Ísraelsmenn og voru nú komnir meðal þeirra, 2. kom hræðsla mikil yfir þá, því Gibeon var eingu minni staður, en þeir, hvar Konúngar hafa aðsetur, og stærri en Aí, voru líka allir innbúar þar góðir hermenn; 3. sendi Adóníseðek, Jerúsalems Konúngur, þá til Hóhams Hebrons Konúngs, til Pírams Jarmúts Konúngs, til Jafía Kóngsins í Lakis og til Debirs, Eglons Kóngs, og lét segja þeim: 4. komið til móts við mig, og veitið mér fullting, að vér meigum sigra Gibeon, því þeir hafa gjört frið við Jósúa og Ísraels börn, 5. fimm Amoríta Kóngar söfnuðust þá og fóru upp þángað, Jerúsalems Kóngur, Hebrons Kóngur, Jarmúts Kóngur, Lakis Kóngur og Eglons Kóngur, með öllum sínum her, settust um Gibeon og herjuðu á borgina. 6. Gibeons menn gjörðu þá menn til Jósúa, þar sem hann lá í herbúðum við Gilgal, og létu segja honum: slá ekki hönd þinni af þjónum þínum, flýt þér oss til hjálpar og frelsis, því allir Amoríta Kóngar, sem í fjallbygðinni búa, hafa samansafnast á móti oss! 7. Jósúa hóf þá herför frá Gilgal með allan her sinn og alla sína kappa; 8. og Drottinn sagði til Jósúa: þú skalt ekki hræðast þá, því eg hefi gefið þá í þína hönd, og einginn þeirra skal standast þér. 9. Jósúa kom yfir þá, þeim óvart, því alla nóttina hélt hann ferðinni áfram frá Gilgal; 10. og Drottinn gjörði þá hrædda fyrir Ísraelsmönnum, svo að þessir gjörðu þeim mikið manntjón hjá Gibeon, og ráku flóttann á leið upp til Betóron, og feldu marga á veginum til Aseka og Makeda. 11. En sem þeir flýðu fyrir Ísraels mönnum ofan frá Betóron, þá lét Drottinn stóra (hagl) steina falla ofan af himnum yfir þá, þar til þeir komu til Aseka, svo þeir féllu, og miklu fleiri féllu fyrir haglsteinunum enn fyrir sverði Ísraelsmanna. 12. Þenna dag, á hvörjum Drottinn gaf Ísraels mönnum sigur yfir Amorítum, talaði Jósúa til Drottins í áheyrn Ísraelsmanna og sagði: Sól stattu kyr í Gibeon, og þú túngl í Ajalons dal. 13. Þá stóðu sól og túngl kyrr, þángað til fólkið hafði hefnt sín á óvinum sínum; þetta finnst skrifað í bók hins Réttláta: „Sólin stóð midt á himni og gékk ekki til viðar allan daginn, 14. og einginn dagur hefir þessum degi líkur verið hvörki fyrr né síðar, að Drottinn skyldi láta að orðum eins manns, því Drottinn barðist fyrir Ísrael". 15. Jósúa fór þá og allur Ísrael með honum aptur til herbúðanna í Gilgal. 16. En þeir fimm Konúngar flúðu, og fólu sig í hellirnum hjá Makeda; 17. þá var Jósúa sagt: vér höfum fundið þá fimm Konúnga, sem hafa falið sig í hellirnum hjá Makeda, 18. þá sagði Jósúa: veltið stórum steinum fyrir hellirs dyrnar, og fáið menn til að halda þar vörð; 19. haldið þér ekki kyrru fyrir, heldur eltið óvinina, fellið þá sem aptastir fara, og látið þá ekki undankomast inní borgir þeirra, því Drottinn, yðar Guð, hefir gefið þá yður í hendur. 20. En þá Jósúa og Ísraels börn höfðu sleigið þá, og gjört mikið manntjón á þeim og unnið fullkomin sigur, höfðu þó nokkrir undan komist, inní víggyrðtu borgirnar. 21. En herinn kom allur óskaddaður til Jósúa í herbúðirnar hjá Makeda, og einginn

þordi ord ad mæla gégn Ísraels børnum. 22. Þá sagdi Jósúa: opnid hellisdyrnar, og leidid þá fimm Konúnga út til mín úr hellirnum. 23. Svo var gjørt, og leiddu þeir þessa fimm Konúnga til hans úr hellirnum: Jerúsalems Konúng, Hebrons Konúng, Jarmúts Konúng, Lakís Konúng, og Eglons Konúng; 24. Og þá þeir høfdu leidt þessa Konúnga út til Jósúa, kalladi Jósúa saman hvørn mann í Ísrael, og sagdi til strídsmanna foríngjanna, sem med honum høfdu farid: komid híngad og stígid fæti á háls konúngum þessum! þeir geingu framm og stigu á hálsa þeirra; 25. þá sagdi Jósúa til þeirra: óttist ekki, né ædrist, heldur verid hugrakkir og øruggir, því svo mun Drottinn fara med alla óvini ydar, sem þér berjist vid. 26. Eptir þad lét Jósúa aflífa þá, og heingja sídan upp í fimm eikur, og þar hjengu þeir til kvølds, 27. en um sólsetur baud hann ad taka þá ofan af eikunum, og dysja í hellirnum, sem þeir høfdu falist í, og bera stóra steina fyrir hellisdyrnar, og eru þeir þar enn í dag.

28. Þenna sama dag vann Jósúa borgina Makeda, tók hana med herskildi og lýsti banni yfir Konúng hennar, og hvørri sál í henni, og lét eingann afkomast; en med Makeda Konúng fór hann eins og hann hafdi ádur farid med Jeríkós Konúng. 29. Sídan fór Jósúa med allan Ísraels lýd frá Makeda til Libna og herjadi á hana; 30. og Drottinn gaf einnig hana í Ísraels hendur, og konúng hennar; og sló med sverdseggjum hvørt mannsbarn í borginni og lét eingann undan komast, og med Konúnginn fór hann eins og med Jeríkós Konúng. 31. Jósúa og allur Ísrael med honum fór frá Libna til Lakís, setti herbúdir hjá henni, og herjadi á hana; 32. og Drottinn gaf Lakís í hendur Ísraels, svo Jósúa tók hana næsta dag og sló hana med sverdseggjum og hvørt mannsbarn, sem í henni var, øldúngis eins og hann hafdi gjørt vid Libna.

33. Þá fór Hóram Gesers Kóngur til lids vid Lakís, en Jósúa feldi hann og menn hans, svo einginn komst undan. 34. Þá fór Jósúa og allur Ísrael med honum frá Lakís til Eglon, settu herbúdir hjá stadnum og herjudu á hann; 35. tóku hann samdægurs, og slóu hann og hvørt mannsbarn, sem í honum var, og sama dag bannfærdi hann hann, allt einsog hann gjørt hafdi vid Lakís. 36. Jósúa og allur Ísrael med honum fór þá upp frá Eglon til Hebrons, og herjadi á þann stad; 37. þeir tóku hann og slóu hann og Konúnginn med sverdseggjum og øll þorp stadarins og hvørt mannsbarn, sem í honum var, og lét hann eingann undan komast, eins og hann hafdi gjørt vid Eglon; hann bannfærdi stadinn og hvørt mannsbarn sem í honum var. 38. Þá snéri Jósúa og allur Ísrael til baka til Debír og herjadi á hana, 39. tók hana, og Konúng hennar og øll þorp, sem þar til heyrdu; þeir slóu þá med sverdseggjum, og bannfærdu þar hvørt mannsbarn, svo þar komst einginn undan; eins og hann hafdi gjørt vid Hebron og Libnu og þeirra Konúnga, svo gjørdi hann vid Debír og hennar Konúng. 40. Þannig herjadi Jósúa landid allt, fjallbyggdina, sudurløndin, sléttlendid og láglendid, vann alla þeirra Konúnga og lét eingan mann afkomast; lýsti hann í banni øllu sem kvikt var, eins og Drottinn Gud Ísraels, hafdi bodid; 41. og Jósúa sló þá frá Kades-Barnea til Gasa, allt landid Gosen til Gibeons; 42. Á einni herfør vann hann alla þessa Konúnga og lønd þeirra, því Drottinn Gud Ísraels bardist fyrir Ísrael. 43. Fór nú Jósúa og allur Ísrael med honum tilbaka til herbúdanna í Gilgal.

## 11. Kapituli.

Kananítar gjorsamlega yfirunnir.

1. Þegar Jabin Hasórs kóngur spurdi þessi tídindi, gjørdi hann ord Jóbab Madons kóngi, kónginum í Simron, og kónginum í Aksaf, 2. og kóngunum, sem fyrir nordan bjuggu á fjallinu (Libanon) og á sléttlendinu fyrir sunnan Genesaret, og á láglendinu og á Dórshædum útvid hafid, 3. Kananítum bædi fyrir austan og vestan, Amoritum, Hetítum, Feresítum, Jebúsítum á fjallinu, og Hevítum fyrir nedan Hermons fjall í Mispalandi. 4. Þessir tóku sig upp med her sinn allann, var þad manngrúi svo mikill, sem sandur á sjáfarstrønd; þeir høfdu fjølda hesta og vagna; 5. allir þessir kóngar komu saman og slóu herbúdum sameginlega vid Meroms vatn, til ad halda orrustu vid Israel. 6. Þá sagdi Drottinn vid Jósúa: ekki skaltu hrædast þá, því á morgun í þetta mund skal eg láta þá alla falla fyrir Israel. 7. Þú skalt skéra sundur aflsínar á hestum þeirra og brenna vagnana! Jósúa yfirféll þá óvørum med her sínum vid Meroms vatn; 8. og Drottinn gaf þá í hendur Israels, svo þeir slóu þá og eltu, allt til Sídónar hinnar miklu og til hveranna austur í Mispudali, og feldu þá þar svo ad einginn komst undan. 9. Jósúa fór med þá, eins og Drottinn hafdi sagt: hann skar sundur aflsínar á hestum þeirra og brendi vagna þeirra.

10. Á þeim tíma snéri Jósúa til baka, vann Hasors borg, tók Konúng hennar af lífi, (því Hasorsborg hafdi verid høfudstadur allra þessara Kóngsríkja), 11. og þeir drápu hvørt mannsbarn í henni, þá þeir bannfærdu hana, og létu ekkert kvikt lífi halda, og brendu Hasor upp ad bjørtu báli; 12. eptir þad tók Jósúa borgir allra þessara Kónga, og Kóngana sjálfa og sló þá med sverdseggjum, og bannfærdi þá, eins og Móses þjón Drottins hafdi bodid. 13. En aungva af þeim borgum, sem enn standa á sínum hædum, brendu Israels børn, nema Hasors borg eina, sem Jósúa brendi; 14. Sídan skiptu Israels børn øllu herfángi og fé þessara stada med sér, en allt fólk slóu þeir med sverdseggjum, þar til þeir høfdu gjøreydt þeim, og létu eingann lífi halda. 15. Eins og Drottinn hafdi bodid þjóni sínum Móses, og Móses hafdi bodid Jósúa, eins gjørdi Jósúa, hann undanfeldi ekkért af því, sem Drottinn hafdi bodid Móse. 16. Þannig tók Jósúa allt landid, fjallbygdina, sudurlandid, allt Gósenland, láglendid, flatlendid, Israelsfjall, og þess undirlendi; 17. frá Skallabergi, sem liggur upp til Seirs, til Baalgad í Libanons dal undir Hermonsfelli, alla Kónga þessara landa handtók hann og aflífadi, 18. en leingi átti hann í orrustum vid Kónga þessa. 19. Eingin var sú borg, sem gjørdi frid vid Israels børn, nema Hevítar, sem bjuggu í Gibeon, heldur unnu þeir þær allar med herskildi. 20. Var þad Drottins verk ad þeirra hjarta stæltist til ad gánga móti Israelslýd í bardaga, til þess hann bannfærdi þá vægdarlaust og eydilegdi þá, eins og Drottinn hafdi bodid Móses. 21. Um þessar sømu mundir kom Jósúa og afmádi Enakana *) á fjallinu, í Hebron, Debir, Anab, á øllu Júdafjalli, og Israelsfjalli; Jósúa bannfærdi þá og borgir þeirra; 22. og aungvir Enakar urdu eptir í landi Israels manna, nema í Gasa, Gat og Asdod urdu þeir eptir. 23. Þannig vann nú Jósúa landid allt í øllum greinum eins og Drottinn hafdi sagt Móses; og Jósúa gaf þad Israelsmønnum til eignar, hvørri ættkvísl sinn hluta. Fékk landid svo hvíld frá strídi.

## 12. Kapituli.

Um sigurvinníngar Israels barna.

1. Þessir eru þeir Kóngar landsins, sem

*) Þ. e. Risana.

Israels-menn unnu og hvørra lønd þeir tóku undir sig, hinumeigin Jórdanar að austanverdu, frá Arnons læk til Hermonsfjalls, og allt sléttlendið í móti austri. 2. Síhon Amoríta Kóngur, sem sat í Hesbon, og ríkti frá Aróer, er liggur á Arnons lækjarbakka, frá miðjum læknum, og yfir hálfu Gilead til lækſins Jaboks, sem er landamerki Ammoníta; 3. og yfir sléttlendinu til Genesarets sjóar að austanverdu, og til eydimerkur hafsins, það er salta hafsins, austur til Betjesímots, og til suðurs að Písga fjallsrótum. 4. En fremur land Ogs, Basans Kóngs, sem eptir var af risa ættinni, og sat í Astarot, og Edrei, 5. og ríkti yfir Hermonsfjalli, Salka, og Basan allt til landamerkja Gesúra og Makata, og yfir hálfu Gilead til landamerkja Síhons Hesbons Kóngs. 6. Móses þjón Drottins og Israels børn høfðu slegið þá, og Móses þjón Drottins gaf Rúbens, Gads og hálfri Manasſis ættkvísl þetta land til eignar.

7. Þessir eru Konúngar landsins, sem Jósúa og Israelsmenn brutu undir sig fyrir vestan Jórdan, frá Baalgad í Libanonsdal til Skallabergs, sem liggur upp að Seirsfjalli; þetta land gaf Jósúa Israels ættkvíslum, hvørri ættkvísl sinn part, 8. á fjallinu, á flatlendinu, á sléttlendinu, á láglendinu, í eydimørkinni og á suðurlandinu, land Hetíta, Amoríta, Kananíta, Feresíta, Hevíta og Jebúsíta:

9. Jeríkós Kóngur var einn; Kóngurinn í Aí, sem liggur hjá Betel, var einn; 10. Jerúsalems Kóngur var einn; Hebrons Kóngur var einn; 11. Jarmúts Kóngur var einn; Lakis Kóngur var einn; 12. Eglons Kóngur var einn; Gesers Kóngur var einn; 13. Debírs Kóngur var einn; Geders Kóngur var einn; 14. Horma Kóngur var einn; Arads Kóngur var einn; 15. Libna Kóngur var einn; Adúllams Kóngur var einn; 16. Makkeda Kóngur var einn; Betels Kóngur var einn; 17. Tappúaks Kóngur var einn; Hefers Kóngur var einn; 18. Afeks Kóngur var einn; Lassarons Kóngur var einn; 19. Madons Kóngur var einn; Hadsórs Kóngur var einn; 20. Simron-Meroms Kóngur var einn; Aksafs Kóngur var einn; 21. Taanaks Kóngur var einn; Megiddó Kóngur var einn; 22. Kadess Kóngur var einn; Jókneams Kóngur hjá Karmel var einn; 23. Dórs Kóngur í Dórshæðum var einn; Góims Kóngur hjá Gilgal var einn; 24. Tirsa Kóngur var einn.

Kóngarnir voru alls 31.

## 13. Kapítuli.

Drottinn býður að skipta landinu. Land Rúbens, Gads og hálfrar Manasse ættkvíslar.

1. Þegar Jósúa tók að gjørast gamall og aldraður, sagði Drottinn til hans: þú ert orðinn gamall og aldurhníginn, en mikið er enn af landinu óunnið. 2. Þetta land er enn eptir: Filistea land allt og allt Gesúra land; 3. frá Sihór, sem rennur framm með Egyptalandi til Ekrons landamerkja mót norðri; þetta telst með Kanaanslandi; þeir fimm høfðíngjar Filisteanna yfir Gasa, Asdod, Askalon, Gat, Ekron og Ava, 4. En sunnan til er allt Kananítaland og Meara, sem Sídonar eiga allt til Afeka og landamerkja Amoríta; 5. þá er Giblíta land og allur Libanon fyrir austan frá Baalgad undir Hermons fjalli, þar til komið er til Hamat. 6. Allir fjalla búarnir frá Libanon til Hveranna, og allir Sídónar; þessa vil eg alla reka upp frá Israels børnum; en þú legg á hluti, og skipt þeim á meðal Israels barna eins og eg bauð þér. 7. Svo skipt þá landi þessu til eignar þeim 9 ættkvíslum og hálfri Manasſis ættkvísl; 8. því með hinum helmíngnum (af Manasse ættkvísl) hafa þeir Rúben og Gad feingið sinn hluta, sem Móses hafði skipt þeim hinumeigin fyrir austan Jórdan,

eptir þeim skiptum sem Móses þjón Drottins hafdi gjørt þeim til handa: 9. frá Aroer sem liggur vid Arnons lækjarbakka, borgina sem liggur í ánni, allt flatlendid hjá Medba allt til Díbons, 10. alla stadina, sem átti Síhon Amoríta Kóngur, er sat í Hesbon, til landamerkja Amorítanna; 11. einnig Gilead, Gesúra og Makatita land, Hermons fjall allt, og allt Basans land til Salka. 12. Allt ríkid í Basan, sem Og hefir átt, er ríkti í Astarot og Edrei, og einn var eptir af risa ættinni. En Móses yfirvann og útrak þá. 13. En Israels menn útráku ekki Gesúra og Makatíta, heldur búa Gesúrar og Makatítar medal Israelsbarna allt til þessa dags. 14. Þarámóti gaf hann Leví ættkvísl einga fasteign, því eldfórn Drottins, Israels Guds, er arfur hennar, eins og hann, (Drottinn) sagdi honum (Móses).

15. Móses úthlutadi ættkvísl Rúbens nidja arfi eptir þeirra kynþáttum. 16. Þeir áttu landamerki frá Aróer, sem liggur vid Arnons lækjar bakka, borgina, sem liggur í ánni, allt sléttlendid hjá Medba. 17. Hesbon og øll hennar þorp, sem liggja á sléttlendinu, Díbon, Bamot=baal og Bet=baalmeon; 18. Jahesa, Kedemot, Mefaat; 19. Kirjataim, Sibma, Seret=Sahar á fjallinu í dalnum, 20. og Betpeor, Pisgafjalls rætur og Betjesimót, 21. og alla stadi á sléttlendinu; samt allt ríki Síhons Amoríta Kóngs, sem sat í Hesbon, er Móses sigradi undir eins og Midians høfdíngja, Evi, Rekem, Súr, Húr og Reba, jarla Síhons, sem bjuggu í þessu landi; 22. Medal þeirra, sem Gydíngar drápu med sverdi, var líka Bíleam Spámadurinn Beórsson. 23. Landamerki Rúbens nidja var Jórdan med landinu ad henni; þetta var arfahluti Rúbens nidja eptir þeirra kynþáttum, borgirnar og þorp þeirra.

24. Gads ættkvísl, Gads nidjum, úthlutadi Móses arfi eptir kynþáttum þeirra; 25. þeirra landi tilheyrdi Jaeser og allir stadirnir í Gilead og helft Ammoníta lands allt til Aróer, sem liggur gégnt Rabba; 26. Frá Hesbon, til Ramat=mispe og Betonim, og frá Mahanaim til Debírs landamerkja; 27. og í dalnum feingu þeir Bet=Haram, Bet=Nimra, Sukkot og Safón, sem eptir var af ríki Síhons, Hesbons Kóngs, og Jórdan med landinu ad henni til enda Genesaret sjóar austanverdt hinumeigin Jórdanar; 28. þetta var arfahlutur Gads nidja, eptir þeirra kynþáttum, borgirnar og þorpin sem þar láu undir.

29. Þeirri hálfu Manasses ættkvísl hafdi Móses úthlutad arfi, og var þetta hluti hálfrar Manasse ættkvíslar eptir hennar kynþáttum: 30. landamerki þeirra voru frá Mahanaim, allt Basansland, allt þad ríki sem átt hafdi Og Basans Kóngur, og øll Jairs þorp, sem liggja í Basan, sextígir bæir. 31. Helft Gileads, sem og Astarot og Edrei, borgir í ríki Ogs í Basan, úthlutadi hann nidjum Makírs, sonar Manassis, nefnilega helmíngi Makírs nidja eptir þeirra kynþáttum. 32. Þetta var þad land, sem Móses úthlutadi á Móabs vøllum hinumeigin Jórdanar fyrir austan Jerikó; 33. Leví ættkvísl hafdi Móses aungvum arfi úthlutad, því Drottinn Israels Gud er sjálfur þeirra arfur eins og hann hafdi sagt þeim.

## 14. Kapítuli.

Kanaanslandi skipt. Arfur Kalebs.

1. Þetta er þad sem Israelsbørn feingu í arf í Kanaanslandi, hvørju presturinn Eleasar, Jósúa Núnsson og ættfedur kynkvísla Israelsbarna skiptu þeim í arf, 2. eptir þeirra arfahluta, einsog Drottinn hafdi bodid fyrir hønd Móses, nefnilega þeirri hálfri tíundu ættkvísl; 3. því Mósis hafdi úthlutad hálfri þridju kynkvísl arf hinumeigin Jórdanar, en Levítunum

hafdi hann eingum arfi úthlutad ámedal þeirra; 4. því Jóseps synir vóru tvær ættkvíslir Manasse og Efraím; en þær gáfu Levítunum aungvan hlut í landinu, heldur stadi ad búa í og beitiland handa fénadi þeirra og sképnum. 5. Ísraelsbørn gjørdu einsog Drottinn hafdi bodid Móses, og skiptu landinu.

6. Júda-nidjar komu til Jósúa í Gilgal, og Kaleb Jefúnnisson af Kénís ætt sagdi til hans: þú veitst hvad Drottinn sagdi vid gudsmanninn Móses í Kadesbarnea áhrærandi mig og þig: 7. eg var þá fertugur, þegar Móses þjón Drottins sendi mig frá Kadesbarnea njósnarfør inní land þetta, og eg sagdi honum satt og rétt frá, eptir samvitsku minni; 8. hinir, sem med mér fóru, tøldu kjark úr fólkinu; en eg fylgdi Drottni Gudi mínum trúlega. 9. Þá sór Móses hinn sama dag, og sagdi: land þad, sem þú stést fæti á, skal vera þín og þinna æfinleg eign, því þú fylgdir Drottni Gudi mínum trúlega. 10. Og sjá nú! Drottinn hefir látid mig lifa, einsog hann lofadi, í þessi fjørutíu og fimm ár, sídan ad Drottinn sagdi þetta vid Móses, á medan Gydíngar vóru í eydimørkinni; og sjá! í dag hefi eg fimm um áttrædt, 11. og enn þann dag í dag er eins hraustur og þegar Móses sendi mig; eins og mín orka var þá, eins er mín orka enn til ad berjast, og gégna mínum daglegu størfum; 12. géf mér nú þessa fjallbygd, sem Drottinn lofadi þann dag; því þú heyrdir þá, ad Enakar eru þar, sem búa í stórum og víggyrdtum stødum. Kannské Drottinn veiti mér fulltýngi, svo eg fái útrekid þá, einsog Drottinn hefir lofad. 13. Og Jósúa blessadi hann og gaf Kaleb Jefúnnissyni Hebron til eignar. 14. Þannig eignadist Kaleb Jefúnnisson, Kenas nidji, Hebron, og héldst eign sú í ætt hans enn, því hann fylgdi trúlega Drottni, Ísraels Gudi. 15. En fyrrum var Hebron kallad Arbaborg, eptir mikilmenni einhvørju medal Enakanna. Þá fékk landid hvíld frá strídi.

## 15. Kapítuli.

Hlutur Júda-ættkvíslar.

1. Hlutskipti Júda-ættkvíslar eptir kynþáttum hennar nádi til Edoms landamerkja og eydimerkurinnar Sín, leingst til sudurs. 2. Sudur-landamerki þeirra byrja vid enda Saltahafsins, frá þeirri vík sem snýr til sudurs, 3. og liggja sunnanverdt vid þar sem upp er geingid til Akrabbim og yfir um Sín, og upp eptir sunnan til vid Kadesbarnea yfir um Hesron, upp til Adar, kríngum Karkaa, 4. yfir um Asmon, liggja svo til Egyptalands lækjar, og útí hafid, þessi skulu vera ydar landa-merki ad sunnanverdu. 5. Landamerkin ad austanverdu eru Saltahafid þar til sem Jórdan fellur í þad. En takmørkin ad nordanverdu byrja vid þá vík hafsins, þarsem Jórdan fellur í þad, 6. liggja sídan upp til Bethogla, framhjá Betaraba ad nordanverdu, svo upp til steins Bóhans, Rúbenssonar; 7. þá liggja landamerkin frá Akorsdal til Debír, svo nordur eptir til Gilgal, sem liggur þar gégnt sem upp er geingid til Adumím, sunnanverdt vid dalinn, þadan liggja landamerkin til En-semes vatns, og enda vid Rógels lind. 8. Sídan liggja landamerkin upp til Hinnomssonar-dals, ad sunnanverdu vid Jebúsíta land, þad er Jerúsalem *) upp til fjallstindsins, sem er beint í vestur frá Hinnoms-dal vid nordurenda Risadalsins; 9. Frá þessum fjallstindi stefna þau til Neftóaks lindar, þadan út til Efronsfjalls stada, þadan til Baala, ødru nafni Kirjat-Jearim. 10. Þadan beygjast landamerkin frá Baala í vestur til Seirsfjalls, liggja nordanverdt vid Skógafjall, sem líka kallast Kesalon, þá ofan til Betsemes yfir Timna; 11. þadan í nord-

*) Jerúsalem tilheyrdi ádur Jebúsítum, 1 Kron. 11, 4.

ur rétt með Ekron, þaðan til Síkron yfir Baalafjall, og út til Jabneel í sjó framm. 12. Landamerki að vestanverðu er hafið mikla og takmørk þess; þetta eru landamerki Júda niðja á allar hliðar fyrir þeirra kynþætti. 13. Kaleb Jefúnnisson fékk sinn hlut meðal Júda niðja, einsog Drottinn hafði sagt Jósúa, nefnilega Arba borg, føður Enaks það er Hebron. 14. Kaleb rak þaðan þrjá Enaks niðja, Sesaí, Akíman og Talmai, sem voru komnir af Enak. 15. Þaðan fór hann mót Debírs búum; var Debír til forna nefndur Seferstaður; 16. og Kaleb sagði: hvør sem vinnur Seferstað, honum skal eg géfa dóttur mína Aksa. 17. Otníel Kenasson, bróðurson Kalebs vann hann og gaf Kaleb honum dóttur sína Aksa. 18. Þegar hún skyldi heim fara (með bónda sínum), ráðlagði hún honum, að beiðast lands nokkurs af føður hennar; hún steig þá niður af asnanum, Kaleb spurði hana þá: hvað geingur að þér? 19. Hún svaraði: géf mér gáfu nokkra. Þú hefir géfið mér suðurlandið, géf mér vatnslindir nokkrar með; gaf hann henni þá efri og neðri lindirnar.

20. Þessi er arfahluti Júda ættkvíslar eptir hennar kynþáttum: 21. Staðirnir syðst í Júda ættkvísl við Edoms takmørk eru: Kabseel, Eder, Jagúr, 22. Kína, Dímóna, Adada, 23. Kedes, Haðsor, Ittnan, 24. Siff, Telem, Bealot, 25. Haðsor-Hadatta, Kirjot-Hedsron (er sama sem Hassor) 26. Amam, Sema, Mólada, 27. Hasar-gadda, Hesmon, Bet-palet, 28. Hasar-Súal, Berseba, Bisjótja, 29. Baala-Gíim, Adsem, 30. Eltólað, Kesil, Horma, 31. Siklag, Maðmanna, Sansanna, 32. Lebaot, Silkim, Ain og Rimmon. Þetta eru alls 29 staðir með þeirra þorpum. 33. En á láglendinu vóru: Estaol, Sora, Asna, 34. Sanoa, En-Gannim, Tappuak, Enam, 35. Jarmút, Adullam, Sókó, Aseka, 36. Saaraim, Adítaim, Gedera, Gederotaim, það eru 14 staðir með þeirra þorpum. 37. Senan, Haðasa, Migdal-Gad, 38. Dilan, Mispe, Joktel, 39. Lakis, Boskat, Eglon, 40. Kabbón, Lakmam, Kitlis, 41. Gederót, Bet-Dagón, Naema og Mak-eda. Það eru sextán staðir með þeirra þorpum. 42. Libna, Eter, Asan, 43. Jifta, Asna, Nesíb, 44. Kegila, Aksíb, Maresa; níu staðir með undirliggjandi þorpum. 45. Ekron með tilheyrandi støðum og þorpum. 46. Frá Ekron út til sjóar, allt það sem liggur til hliðar við Asdod, og þartil heyrandi þorp; 47. Asdod með undirliggjandi støðum og þorpum, Gasa með tilheyrandi støðum og þorpum til Egyptalands lækjar, og hafsins mikla og þess takmarka. 48. En á fjallbygðum: Samír, Jattir, Sokkó, 49. Danna, Kirjat-Sanna, sem líka kallast Debír, 50. Anab, Estemó, Aním, 51. Gosen, Holon, Gilo, ellefu staðir með undirliggjandi þorpum; 52. Arab, Dúma, Esean, 53. Janúm, Bet-Tappúak, Afeka, 54. Húmta, Kirjat-Arba, eða Hebron, og Zíór, níu borgir og þeirra þorp; 55. Maón, Karmel, Síf, Júta, 56. Jisreel, Jokdeam, Sanoak, 57. Kain, Gibea, Timna, tíu borgir og þeirra þorp; 58. Halhúl, Bet-Súr, Gedór, 59. Maarat, Bet-Anot og Eltekon; sex staðir með þeirra þorpum. 60. Kirjat-Baal, heitir nú Kirjat-jearim, og Rabba, tveir staðir með þeim tilheyrandi þorpum.

61. Í eyðimørkinni Bet-Araba, Middín, Sekaka, 62. Nibsan, Saltstaðurinn og Engeði, sex staðir með undirliggjandi þorpum.

63. En Jebúsítana sem í Jerúsalem bjuggu, gátu Júda niðjar ekki útrekið; búa því Jebúsítar ásamt Júda børnum í Jerúsalem inn til þessa dags.

## 16. Kapítuli.

Hlutur Jóseps ættkvíslar: Efraims ættkvíslar.

1. Síðan kom upp hlutur Jóseps niðja, og

hlotnadist þeim landid frá Jórdan hjá Jerkó, til
Jeríkóar vatna ad austanverdu, eydimørkin sem
geingur upp frá Jerikó yfir Betelsfjall; 2. frá
Betel liggja landamerkin til Lús, þadan yfir til
landamerkja Arkitanna, til Atarot, 3. þadan í
vestur, nidur til landamerkja Jafleta, og til nedri
Bethorons merkja, allt til Gaser, og allt til hafs-
ins. 4. Þetta var hlutskipti þeirra Manassis
og Efraims Jósepssona.

5. Þetta voru takmørk Efraims nidja eptir
þeirra kynþáttum; takmørk erfdahluta þeirra
voru ad austanverdu frá Atrot-Addar til efri
Bethoron; 6. þá liggja landamerkin vestur ept-
ir þannig, ad Mikmetat liggur nordan til vid
merkin, beygjast svo landamerkin í austur til
Takat-Siló, og þar yfir fyrir austan Janóka; 7.
liggja svo nidur eptir frá Janoka til Atarot og
Naarata, lenda hjá Jeríkó og liggja svo nidur til
Jórdanar. 8. Frá Tapúak stefna landamerkin
í vestur til lækjarins Kana og enda vid sjó.
Þessi er Efraims nidja erfda hluti eptir kyn-
þáttum þeirra. 9. Og þaradauki stadir þeir,
sem Efraims nidjum voru úthlutadir í landi
Manassis nidja, allir þessir stadir med þeirra
þorpum. 10. En þeir útráku ekki þá Kanan-
íta, sem bjuggu í Gaser, búa því Kananítar
medal Efraímíta fram á þennan dag og eru
þeim skattskyldir.

## 17. Kapítuli.

Hlutur hálfrar Manassis ættkvíslar.

1. Hlutur ættkvíslar Manassis, sem var
frumgétinn sonur Jóseps tilféll Makír, sem var
frumgétinn sonur Manassis og fadir Gileads;
þessi var bardaga madur mikill, hlotnadist hon-
um landid Gilead og Basan. 2. Hinir adrir
nidjar Manassis feingu sinn hluta eptir þeirra
kynþáttum: nefnilega synir Abiesers, Heleks, As-
ríels, Sekems, Hefers og Semida. Þessir
vóru afkomendur Manassis Jósepssonar í kall-
legginn. 3. En Selofkad Hefersson Gileads-
sonar, Makírssonar Manassissonar átti einga
sonu, heldur dætur einar, hétu þær: Mahela,
Noga, Hogla, Milka og Tirsa. 4. Þær geingu
til prestsins Eleasar, Jósúa Núnssonar og høfd-
íngjanna, og tjádu þeim: Drottinn baud Mósi
ad úthluta oss arfi medal brædra vorra; var
þeim þá úthlutadur arfur á medal fødurbræd-
ra þeirra, eptir bodi Drottins. 5. Manass-
is ættkvísl fékk tíu hluti auk Gileads og Ba-
sans, sem liggja hinumeigin Jórdanar; 6. því
dætur Manassis *) tóku arf med sonum hans;
en Gilead feingu hinir adrir nidjar Manassis.
7. Landamerki Manassis nidja vóru frá Aser til
Mikmeta, sem liggur gégnt Sikkem, og gánga
til hægri handar til þeirra, sem búa í En-Tap-
púak; 8. Tappúaks land hafdi tilfallid Man-
assis ættkvísl, en Tappúak sjálf, sem lá vid tak-
mørk Manassis ættkvíslar tilheyrdi Efraims
nidjum; 9. Liggja svo landamerkin nidur ad
Kana læk, fyrir sunnan lækinn. Þessir stadir
tilheyrdu Efraims nidjum en liggja þó millum
stada þeirra, sem Manassis nidjar áttu; en
landamerki Manasse ættkvíslar er fyrir nordan
lækinn, og enda vid hafid; þad sem var ad sunn-
anverdu tilheyrdi Efraims nidjum; 10. en þad
sem var ad nordanverdu, Manassis nidjum; haf-
id var landamerki þeirra; ad nordanverdu lá
land þeirra ad Asers ættkvísl, en ad austan-
verdu ad Ísaskars. 11. En í Ísaskars og
Asers landi feingu Manassis nidjar Betsean
med hennar hjábýlum, Jibleam, med sínum
hjábýlum, innbúarnir í Dór, med þeirra hjábýl-
um, innbyggjendurnir í Endór og hennar hjá-
býli, Taakak og hennar hjábýli, og innbúarnir
í Megiddo med sínum hjábýlum, sem eru þrjár
hædir. 12. Ekki gátu Manassis nidjar nád
stødum þessum, tóku því Kananítar sér bólfestu

*) Þ. e. Dætur Selofkads, sem komnar voru af Mannasse sjá v. 3.

í landi þessu; 13. en þegar styrkur Ísraels manna óx, skattgyldtu þeir Kananíta, en ráku þá ekki algjørlega burt.

14. Þá toludu Jóseps nidjar til Jósúa og søgdu: því gafstu oss ekki nema eitt hlutskipti og einn erfda hlut? vér erum þó fjølmennir ordnir, vegna þess ad Gud hefir svo mjøg blessad oss híngad til, 15. en Jósúa gaf þeim þad svar: ef þér erud svo fjølmennir, ad Efraíms fjall er ydur of landþraungt, farid þá í skóginn í Feresíta og Risa landi, og rydjid ydur þar til bólstada. 16. Jóseps nidjar svørudu: vér náum ekki fjallinu, því allir Kananítar, sem í dallendinu búa og í Betsean og þorpunum þar í kríng, og í Jisreels dalnum, hafa járnvagna. 17. Jósúa sagdi þá til Jóseps afkomenda, Efraíms og Manassis nidja: þér erud fjølmenn þjód og mjøg øflugir, þér skulud ekki hafa einn erfdahlut, 18. því fjallid skal vera ydar; en þared þad er skógi varid, þá høggvid skóginn, og hann skal tilheyra ydur til ytstu ummerkja; því þér skulud útreka Kananítana, þó þeir hafi jarnvagna og séu voldugir.

## 18. Kapítuli.

Samkundutjaldbúdin flutt til Síló; landinu lýst; hlutur Benjamíns ættkvíslar.

1. Eptir þetta safnadist allur søfnudur Ísraels barna í Síló og reistu þar samkundutjaldbúdina; þeir høfdu þá lagt undir sig allt landid. 2. En enn voru eptir 7 ættkvíslir af Ísraels børnum, sem ekki høfdu skipt þeirra erfdahluta. 3. Jósúa sagdi þá til Ísraels barna: því erud þér svo tómlátir, ad þér farid ekki og takid þad land, sem Drottinn Gud fedra ydar, hefir géfid ydur? 4. Veljid nú þrjá menn af hvørri ættkvísl, og eg vil senda þá út, og þeir skulu taka sig upp og fara um landid, og gjøra skriflega lýsíngu yfir þad eptir sérhvørs erfdahluta, og koma til mín aptur, 5. skiptid svo landinu í sjø parta; Júda ættkvísl skal standa á sínum landamerkjum ad sunnanverdu, og Jóseps afkomendur skulu standa á sínum landamerkjum ad nordanverdu; 6. en þér skulud gjøra lýsíngu yfir þessa sjø hluti landsins, og færid mér hana híngad, svo skal eg kasta hlutkésti fyrir ydur, fyrir augliti Drottins vors Guds. 7. Því Levítarnir fá eingan hlut á medal ydar, þeirra hlutur er kénnimannskapur Drottins; Gad og Rúben og helmíngur Manassis ættkvíslar hafa tekid sína hluti hinumeigin fyrir austan Jórdan, sem Móses Drottins þjón úthlutadi þeim. 8. Þessir menn tóku sig upp og fóru, og baud Jósúa þeim, þá þeir fóru, ad gjøra lýsíngu yfir landid og sagdi: farid þid nú af stad, og ferdist um landid, gjørid lýsíngu yfir þad og komid svo til mín aptur, og þá vil eg kasta hlutkésti ydur til handa fyrir Drottins augliti í Síló. 9. Þeir fóru, ferdudust um landid og skrifudu lýsíngu þess í eina bók, eptir borgunum og eptir þeim sjø erfda hlutum og komu til Jósúa í herbúdirnar í Síló; 10. kastadi Jósúa hlutum fyrir þá í Síló, fyrir augliti Drottins, og skipti þar landinu milli Ísraels barna, eins og hlutir féllu.

11. Kom þá (fyrst) upp hlutur Benjamíns ættkvíslar, eptir kynþáttum hennar; og landamerki arfahluta hennar urdu á milli landa þeirra Júda og Jóseps nidja: 12. landamerki þeirra stefna til nordurs frá Jórdan, og liggja upp fyrir nordan Jerikó, og vestur yfir fjallid, og enda í eydimørkinni hjá Betaven. 13. Þadan liggja takmørkin til Lús, nefnilega sunnanverdt vid Lús, ødru nafni Betel, svo nidur til Atarot-Addar yfir fjallid, sem er fyrir sunnan Nedra Bethoron; 14. beygjast þá landamerkin vestur á vid fyrir sunnan þad fjall, sem liggur mót sudri þvers yfir frá Bethoron og enda vid Kirjat-Baal, þad er Kirjat-Jearim, sem

er ein af borgum Júda ættkvíslar; þetta voru takmørkin ad vestanverdu. 15. Sydra hornid liggur frá endanum á Kirjat Jearim og gánga landamerkin til vesturs, og ná ad Neftóaks vatns uppsprettu, 16. þá liggja þau nidur til fjallsendans, sem gégnt liggur Hinnomssonar dal, nordanverdt í Rísa dalnum, svo ofan í Hinnomsdal sunnanverdt vid Jebúsíta land og nidur til Rógels lindar; 17. Sídan beygja landamerkin sig nordur = ávid til Enssemes, þá til Gelilot, sem liggur þar gégnt, sem geingid er upp til Adumím, þadan nidur til Steins Bohans Rúbenssonar. 18. Sídan liggja þau til hlidar, þvers yfir frá Araba til nordurs og nidur til Araba, þá gánga landamerkin nordur med Bethogla, 19. og lenda í nordurvík Salta sjóar vid sudurenda Jórdanar; þessi eru landamerkin ad sunnanverdu; 20. en ad austanverdu er Jórdan landamerkin. Þetta var Benjamíns nidja og þeirra kynþátta arfahluti, med sínum takmørkum allt í kríng.

21. Þessir eru stadir Benjamíns ættkvíslar og hennar kynþátta, Jeríkó, Bethogla, Emek = Kesis, 22. Betaraba, Semaraím, Betel. 23. Avím, Para, Ofra, 24. Kesar = Amonai, Ofni, Gaba, eru þad tólf stadir med þorpum, sem þar til heyra; 25. Gibeon, Rama, Berot, 26. Mispe, Kefíra, Mosa, 27. Rekem, Jirpeel, Tarala, 28. Sela, Elef og Jebús, (þad er Jerúsalem) Gíbeat og Kirjat, fjórtán stadir med tilheyrandi þorpum; þetta var erfdahluti Benjamíns nidja eptir þeirra kynþáttum.

## 19. Kapítuli.

Arfahluti hinna sex ættkvíslanna og Jósúa sjálfs.

1. Eptir þad kom út næsti hlutur, fyrir Símeons ættkvísl og hennar kynþætti; þeirra arfahluti vard midt í arfahluta Júda nidja, 2. til þeirra erfdahluta heyrdi Beerseba, Seba, Mólada, 3. Hasar = Súal, Bala, Esem, 4. Eltólad, Betúl, Horma, 5. Siklag, Bet = Marabot, Hasar = Súsa, 6. Bet = Lebaot, Saruhen, þrettán stadir med undirliggjandi þorpum. 7. Ain, Rimmon, Eter og Asan, fjórir stadir med undirliggjandi þorpum. 8. Þarmed þorp þau øll, sem liggja kríngum þessa stadi allt til Baalat = Beer, þad er sydri Ramat, þetta er erfdahluti Símeons nidja, eptir þeirra kynþáttum. 9. Lá svo landhluti þeirra í landareign Júda nidja, því þeim hafdi ofmikid útskipt verid, og þaraf kom þad, ad Símeons nidjar feingu hlut midt í þeirra landi.

10. Kom nú upp þridji hluturinn fyrir Sebúlons nidja, eptir þeirra kynþáttum; nádu landamerki þeirra til Saríd, 11. og upp til hafsins og Marala allt til Dabbaset, og lækjarins gégnt Jókneam; 12. geingu til baka frá Saríd austanverdt fyrir framan landamerki Kislot = Tabors, svo út til Daberat og upp til Jafía; 13. þadan beint austur eptir yfir Gitta = Hefer, Itta = Kasín, sídan út til Rimmon = Metóar, þad er Nea; 14. svo ad nordanverdu frammhjá Hanaton, og enda í Iftakelsdal, 15. Katat, Nahalal, Simron, Jidala og Betlehem, þad eru tólf stadir med þeirra þorpum; 16. þessi var arfahluti Sebúlons nidja, eptir þeirra kynþáttum; þessir voru stadir þeirra med undirliggandi þorpum.

17. Þá kom upp hinn fjórdi hlutur, þad var hlutur Isaskars nidja og þeirra kynþátta. 18. Þeirra landamerki voru Jisreela, Kesulot, Súnem, 19. Hafraím, Síon, Anaharat, 20. Rabbit, Kisjon Ebes, 21. Remet, Engannim, Enhadda, Betpases; 22. þá nádu landamerkin til Sabor, Sahasím, Betsemis og enda vid Jórdan, sextán stadir med þorpum þeirra; 23. þetta er Isaskars nidja arfahluti og þeirra kynþátta, þeirra stadir þessir med sínum þorpum.

24. Fimti hluturinn kom upp fyrir Asers ættkvísl og hennar kynþætti; 25. þar voru landamerkin Helkat Hali, Beten, Aksaf, 26. Ala=

melek, Amead, og Miseal, og ná vestur ad Karmel og Síhór-Líbnat; 27. Þadan víkur þeim til austurs ad Betdagon, þá til nordurs ad Sebúlons (landamerkjum) og Jiftahelsdal, Betemek, og Negíel, og til vinstri handar út hjá Kabúl. 28. Ebron, Rekob, Hammon, Kana til hinnar miklu Sídonar, 29. snýr þá landamerkjunum til Rama og til hins víggyrdta stadar Týrus og aptur til Hosa, og enda vid hafid beint undan Aksíb, 30. Umma, Afek og Rehob; þetta voru tuttugu og tveir stadir med þeirra þorpum. 31. Þetta er erfdahluti Asers ættkvíslar og hennar kynþátta; þessir voru þeirra stadir med sínum þorpum.

32. Sjøtti hluturinn kom nú upp fyrir Naftali ættkvísl, og hennar kynþætti, 33. byrja landamerki þeirra frá Helef og eikinni hjá Saenannim, Adami-Nekeb, og Jabneel allt til Lakkúm, og enda vid Jórdan; 34. þadan í vestur til Asnot-Tabor, þadan út til Hukkok, ná til Sebúlons ad sunnanverdu, til Asers ad vestanverdu, og til Júda vid Jórdan ad austanverdu; 35. voru þar þessir víggyrdtir stadir: Siddim, Ser, Hammat, Rakkat, Genesaret, 36. Adama, Rama, Hasór, 37. Kedes, Edrei, Enhasor, 38. Jiron, Migdal-El, Harem, Betanat, Betsemes; nítján stadir med þeirra þorpum. 39. Þetta var arfahluti Naftali ættkvíslar og hennar kynþátta; og þessir stadir þeirra med sínum þorpum.

40. (Loks) kom upp hinn sjøundi hlutur Dans ættkvíslar og hennar kynþátta; 41. og landamerki þeirra arfahluta var Sora, Estaól, Ir-saemes, 42. Saalabbim, Ajalon, Jitla, 43. Elón, Timnata, Ekron, 44. Elteke, Gibbeton, Baalat, 45. Jehúd, Bne-berak, Gat-Rimmon, 46. Jarkons vatn og Rakkon med landinu gagnvart Joppe. 47. En landamerki Dans nidja urdu þeim ofþraung, og því fóru Dans nidjar, upp og herjudu á Lesem, unnu hana, slóu innbúana med sverdi, og bjuggu þar sídan sjálfir; en gáfu stadnum Lesem nafn eptir ættfødur þeirra Dán. 48. Þessi var arfahluti Dans nidja og þeirra kynþátta og þessir stadir þeirra med sínum þorpum.

49. En er Israels menn høfdu skipt landinu øllu til ytstu ummerkja, gáfu þeir Jósúa Núnssyni arfahluta hjá sér. 50. Þeir gáfu honum eptir bodi Drottins stadinn, sem hann sjálfur kaus, Timnat-Sera á Efraíms fjalli; hann víggyrdti þá borg, og bjó þar sídan.

51. Þessir voru þeir erfdahlutir, sem þeir Eleasar prestur, Jósúa Núnsson og ættfedurnir med hlutkésti úthlutudu ættkvíslum Israels barna í Síló fyrir augliti Drottins, vid dyr samkundutjaldbúdarinnar; var svo skiptum þessum lokid.

## 20. Kapituli.

Settir gridastadir.

1. Enn baud Drottinn Jósúa: 2. tala þú til Israels barna og seg þeim: veljid ydur þá gridastadi, sem eg hefi talad um vid ydur fyrir hønd Mósis, 3. ad sá fái þángad flúid, sem af vangá og ad óvilja sínum hefir á ødrum unnid, og svo þeir séu gridastadir handa ydur fyrir eptirmálsmanninum; 4. og hann má flýa til einhvørs þessara stada, og standa vid inngáng borgarhlidsins, og tala máli sínu í áheyrn þess stadar øldúnga, skulu þeir þá veita honum vidtøku, og fá honum hæli, svo hann géti búid hjá þeim; 5. og þó eptirmálsmadurinn fari eptir honum, skal hann ekki framseljast honum, hafi hann manninn vegid af vangá, og ekki verid ádur kunnur ad fjandskap gégn honum. 6. Í þessum stad skal hann adsetur hafa, þar til mál hans er ransakad fyrir samkundunni *), og þar til sá er dáinn, sem þá er ædsti prestur; en eptir þad má vegandinn aptur hverfa, og fara

*) Nefnilega, hvort verkid var unnid af vangá eda viljandi.

til sinnar borgar og síns húss, til þess stadar, hvadan hann flýdi.

7. Þá settu þeir þessa gridastadi: Kades í Galilæa á Naftali fjalli, Sikkem á Efraims fjalli, og Kirjat-Arba eda Hebron á Júda fjalli. 8. En fyrir handan Jórdan, fyrir austan Jerikó létu þeir til (þessa gridastadi): Rúbens ættkvísl lét til Beser í eydimørkinni á sléttlendinu, Gads ættkvísl Ramot í Gilead, og Manassis ættkvísl Golan í Basan. 9. Þessir voru þeir gridastadir, sem tilteknir voru handa øllum Israels børnum, og þeim útlendu, sem hjá þeim bjuggu; svo ad hvørr sá, sem af vangá hafdi manni ad bana ordid, gæti þángad flúid, og verid óhulltur fyrir eptirmálsmanninum, þar til mál hans væri ransákad fyrir samkundunni.

## 21. Kapítuli.

Stadir Levítanna.

1. Þar eptir fram-komu ættfedur Levíættkvíslar fyrir prestinn Eleasar, Jósúa Núnsson og ættfedur kynkvísla Israels manna, og tøludu þannig til þeirra í Síló í Kanaans landi: 2. Drottinn baud fyrir hønd Mósis, ad vér skyldum fá stadi ad búa í, og haglendi hjá þeim fyrir fénad vorn. 3. Løgdu þá Israels børn af vid Levíta af arfi þeirra, eptir bodi Drottins, þessa stadi og þad haglendi, sem þeim fylgdi. 4. Var þá hlutast um og kom upp fyrstur hlutur Kahats ættar, og nidjar Arons prests, af Leví-ættkvísl feingu med hlutkésti þrettán stadi hjá Júda, Símeons og Benjamíns ættkvíslum; 5. hinir afkomendur Kahats feingu med hlutkésti tíu stadi hjá Efraims, Dans, og þeirri hálfu Manassis ættkvísl. 6. Gersons afkomendur hlutu þrettán stadi hjá Issakars, Asers og Naftalís ættkvísl, og hjá hinum helmíngi Manassis ættkvíslar í Basan. 7. Meraris nidjar feingu eptir þeirra kynþáttum tólf stadi hjá Rúbens, Gads, og Sebúlons ættkvíslum. 8. Þannig løgdu Israels børn af vid Levíta eptir hlutkésti þessa stadi med þeirra haglendi, eins og Drottinn hafdi bodid fyrir hønd Mósis.

9. Ættkvíslir Júda og Simeons løgdu til þessa stadi, sem hér eru nafngreindir, 10. og Arons afkomendur, af Kahats kynþætti og Leví ættkvísl feingu þá — því fyrsti hluturinn tilféll þeim —; 11. nefnilega, þær løgdu af vid þá Kirjat-Arba, sem átt hafdi ættfadir Enaka, þad er: Hebron á Júda fjalli, og haglendi þar umhverfis; 12. en akurland borgarinnar med hennar þorpum høfdu þeir géfid Kaleb Jefúnnessyni til eignar *), 13. þannig gáfu þeir nidjum Arons prests Hebron, sem var gridastadur vígsekra, og beitarland hennar, Libna med hennar haglendi; 14. Jatír og hennar haglendi, Estemóa med hennar haglendi; 15. Holon og haglendi med, Debír med haglendi, 16. Ain og haglendi med, Jútta med haglendi, Betsemes og haglendi med; þessa níu stadi gáfu þessar tvær ættkvíslir; 17. hjá Benjamíns ættkvísl feingu þeir fjóra stadi, Gíbeon og haglendi med, Geba med haglendi, 18. Anatot og haglendi med, og Almon med haglendi. 19. Afkomendur Arons prests hlutu þannig í allt þrettán stadi, alla med haglendi.

20. Hinir Kahats nidjar af Leví ættkvísl feingu eptir hlutkésti stadi hjá Efraims nidjum. 21. Þessa stadi løgdu þeir af vid þá: gridastad vígsekra, Sikkem á Efraíms fjalli og haglendi med, Geser med haglendi, 22. Kibsaim og haglendi med, Bethoron med haglendi: fjórir stadir. 23. Hjá Dans ættkvísl: Elteke og haglendi med, Gibbeton med haglendi, 24. Ajalon og haglendi med, og Gat-Rimmon med haglendi: fjórir stadir; 25. Hjá helmíngi Manassis ættkvíslar: Taanak og haglendi med, Gat-Rimmon med haglendi: tveir stadir; 26. Svo ad þeir stad-

*) Sjá 14, 13. 14.

ir er kynþættir hinna annara Kahats nidja feingu, vóru alls tíu, allir med haglendum.

27. Levítarnir af Gersons kynþætti feingu hjá helmíngi Manassis nidja, gridastad vígsekra Gólan í Basan og haglendi med, og Bestera*) med haglendi: tveir stadir; 28. hjá Issakars ættkvísl: Kisjon og haglendi med, Dabrat med haglendi, 29. Jarmút og haglendi med, En-Gannim med haglendi: fjórir stadir; 30. Hjá Asers ættkvísl: Misal og haglendi med, Abdon med haglendi, 31. Helkat og haglendi med, Rehob med haglendi, fjórir stadir. 32. Hjá Naftali ættkvísl gridastad vígsekra, Kedes í Galíleu og haglendi med, Hammot-Dór med haglendi, Kartan og haglendi med, þrír stadir. 33. Þrettán vóru þá stadir þeir, sem Gersons kynþættir hlutu, og allir med haglendum.

34. Hinir kynþættir Merari-nidja, sem voru af Leví- ættkvísl, feingu hjá Sebúlons ættkvísl: Jokneam og haglendi med, Karíta med haglendi, 35. Dimna og haglendi med, Nahalal med haglendi: fjórir stadir; 36. hjá Rúbens ættkvísl: Beser og haglendi med, Jasa med haglendi, 37. Kedemót og haglendi med, Mefaat med haglendi, fjórir stadir; 38. hjá Gads ættkvísl: gridastad vígsekra, Ramot í Gilead, og haglendi med, Mahanaim med haglendi, 39. Hesbon og haglendi med, og Jaesar med haglendi: fjórir stadir. 40. Svo ad Levítar þeir, sem eptir vóru, og ættbogi vóru Meraríís, hlutu tólf stadi. 41. Þeir stadir med haglendum, sem Levítarnir feingu innan um arfahluta Israelsbarna, voru alls fjørutýgir og átta, 42. þessir stadir med sínum beitarløndum umhverfis láu á víd og dreif, borg fyrir borg, einn sem annar.

43. Svo hafdi þá Drottinn gésid Israel allt landid einsog hann med eidi lofad hafdi fedrum þeirra; og þeir numu landid og bjuggu þar; 44. og Drottinn gaf þeim gódan frid allt um kríng, einsog hann hafdi svarid fedrum þeirra, einginn óvina þeirra fékk þeim mótstødu veitt, heldur gaf Drottinn þá alla á þeirra vald. 45. Ekkért af þeim fyrirheitum brást, sem Drottinn hafdi gésid Israels lýd, heldur rættust þau øll.

*) Kallast Astarot 1 Kron. 7, 71.

## 22. Kapítuli.

Rúbens, Gads og Manassis ættkvísl fara til heimkynna sinna; byggja altari vid Jórdan.

1. Nú kalladi Jósúa Rúbens, Gads, og þá hálfu Manassis ættkvísl fyrir sig, 2. og sagdi vid þá: dyggilega hafid þér hlýdt því øllu, sem Móses Drottins þjón baud ydur; mér hafid þér og hlýdnir verid í øllu, sem eg hefi fyrir ydur lagt. 3. Í lángan tíma og allt fram á þenna dag hafid þér fylgi veitt brædrum ydar, og vardveitt hlýdni vid bodord Drottins, ydar Guds. 4. En nú hefir Drottinn eptir lofordi sínu gésid brædrum ydar hvíld, farid þér þessvegna til baka til tjalda ydvarra og ydar eignarlands, sem Móses Drottins þjón úthlutadi ydur hinumeigin Jórdanar. 5. Gjætid þess einúngis, ad þér haldid vel løgmál þad og bod, sem Móses Drottins þjón gaf ydur, ad þér elskid Drottinn ydar Gud, gángid á øllum hans vegum, geymid hans bod, haldid ydur fastlega til hans og þjónid honum af øllu ydar hjarta og allri ydar sálu! 6. Sídan blessadi Jósúa þá og gaf þeim fararleyfi, og fóru þeir til tjalda sinna.

7. Ødrum helmíngi Manassis ættkvíslar hafdi Móses landi skipt í Basan; en hinum helmíngnum Jósúa hérnamegin Jórdanar ad vestanverdu. En þegar Jósúa gaf þeim fararleyfi til tjalda sinna, blessadi hann þá, 8. og sagdi til þeirra: þér farid nú heim til ydar tjalda med audæfi mikil, med miklar hjardir, silfur, gull, eir og járn, og mjøg mikid af klædnadi, midlid nú brædrum ydar nokkru af

þessu, sem þér hafid ad herfángi tekid af
óvinunum.
9. Eptir þetta snéru þeir Rúbens og Gads nid-
jar og helmíngur Manassis ættkvíslar til baka, og
skildu vid Israels børn í Síló í Kanaanslandi, og
fóru til Gileads lands, þeirra eignar, sem þeir tóku
í arf eptir bodi Drottins fyrir hønd Mósis. 10.
En er þeir komu til Gelilót hjá Jórdan í Kanaans-
landi, þá reistu þeir Rúbens og Gads nidjar og hálf
Manassis ættkvísl þar vid Jórdan stórt og á-
litlegt altari. 11. En er Israels børn spurdu
þad, ad Rúbens og Gads nidjar og hálf Man-
assis ættkvísl høfdu byggt altari í Gelilót vid
Jórdan gégnt Kanaanslandi hjá vadi Israels
barna, 12. þá safnadist allur søfnudur Israels
barna saman í Síló til ad færa þeim stríd á
hendur; 13. þá sendu Israelsmenn Pineas
son prestsins Eleasar til Rúbens og Gads nidja
og hálfrar Manassis ættkvíslar til Gileads
lands, 14. og tíu høfdíngja med honum, sinn
høfdíngja af hvørri ætt fyrir allar Israels
ættkvíslir; og hvørr þeirra var ættfadir medal
kynþátta Israelsmanna. 15. Þessir komu til
Rúbens og Gads nidja og hálfrar Manassis ætt-
kvíslar, í Gílead landi, og søgdu vid þá á
þessa leid: 16. Svo segir allur søfnudur
Drottins: hvílík er sú ótrúmennska, sem
þér hafid sýnt gégn Israels Gudi, ad þér í
dag hafid snúid ydur frá Drottni, er þér hafid
reist ydur altari, svo ad þér hafid í dag fallid
frá Drottni! 17. þykir ydur sá glæpur oflítill
(ad vér tilbádum) Peor *), þá plágan kom yf-
ir Drottins søfnud, hvørn glæp vér enn ekki
høfum afplánad, 18. ad þér í dag viljid snúa
ydur frá Drottni, og þad skuli ské, ad þér í
dag gjørid uppreisn móti Drottni, svo ad hann
á morgun reidist øllum Israels søfnudi! 19.
En sé ydar eignarland ordid saurgad, þá farid
yfirum aptur, í land þad, sem Drottni tilheyr-
ir, og hvar bústadur þ. e. samkundutjaldbúdin,
Drottins er, og takid arf med oss, en gjørid
ekki uppreisn móti Drottni og ekki móti oss,
med því ad byggja ydur annad altari, enn altari
Drottins vors Guds! 20. syndgadist ekki Akan
**) Seraksson á því bannfærda, og fyrir þad
kom reidi (Drottins), yfir allan Israels søfn-
ud, og Akan dó ekki einn fyrir sinn glæp.
21. Þeir Rúbens og Gads nidjar og hálf
Manassis-ættkvísl svørudu og søgdu til ætt-
fedra Israelsmanna: 22. Gud Drottinn almátt-
ugur, Gud Drottinn almáttugur, hann veit þad,
og Israel skal vita þad, ad ef vid høfum þetta
gjørt í því skini ad gjøra uppreisn móti Drottni,
eda falla frá Drottni, þá hjálpa þú (Drott-
inn) oss ekki í dag; 23. og ef vid høfum alt-
arid reist til þess ad snúa oss burt frá Drottni,
já, sé þad skéd til ad fórna brennifórn þar á
eda matfórn eda til ad færa þakkarfórn ***), þá
hefni Drottinn þess! 24. og ef vér høfum ekki
gjørt þetta af áhyggju, vegna þess vér hugs-
udum: seinna meir munu ydar nidjar segja til
vorra nidja: „hvad kémur Drottinn Israels
Gud ydur vid? 25. Drottinn hefir sett Jórd-
an sem landamerki millum vor og ydar, þér
Rúbens og Gads nidjar! þér hafid einga hlut-
deild í Drottni," og þá kynnu ydar nidjar ad
koma vorum nidjum til þess ad hætta ad ótt-
ast Drottinn! 26. þessvegna kom oss þad á-
samt ad reisa altari þetta, ekki fyrir brenni-
fórnir og ekki fyrir slátursfórnir, 27. heldur til
vitnis millum vor og ydar og vorra eptirkom-
enda eptir oss, ad vér viljum þjóna Drottni
fyrir hans augliti med vorum brennifórnum,
slátursfórnum og þakkarfórnum, og ad nidjar
ydar sídar meir ekki géti sagt til vorra nidja:
þér hafid einga hlutdeild í Drottni! 28. þar
fyrir søgdum vér: ef þeir sídar meir tala svo
til vor og vorra eptirkomenda, þá viljum vér

*) 4 Mós. b: 25, 3. **) Josv. 7, 24 — 26. ***) Nefnil: til heidurs einhvørjum hjágudum.

svara: lítid hér eptir mynd Drottins altaris, sem fedur vorir gjørdu, ekki til ad bera þar á offur brennifórnar eda slátursfórnar, heldur til vitnisburdar millum vor og ydar! 29. Þad sé fjærri, ad vér vildum falla frá Drottni, eda í dag snúa oss í burt frá Drottni med því ad byggja annad altari til brennifórna, matfórna og slátursfórna, en altari Drottins vors Guds, sem stendur fyrir framan hans tjaldbúd. 30. Þegar presturinn Pineas og høfdíngjar safnadarins, ættfedur Israels kynþátta, sem med honum vóru, feingu þessi svør af Rúbens, Gads og Manassis nidjum, líkudu þau þeim vel; 31. þá sagdi Píneas, sonur prestsins Eleasar vid Rúbens, Gads og Manassis nidja: í dag sjáum vér, ad Drottinn er á medal vor, þar þér hafid ekki sýnt ótrúmennsku móti Drottni í þessu; nú hafid þér frelsad Israels børn frá hendi Drottins. 32. Snéri nú Píneas sonur Eleasars prests og høfdíngjarnir heim aptur frá Rúbens og Gads nidjum í Gílead landi til Israelsbarna í Kanaanslandi, og færdu þeim þessi svør; 33. líkudu þeim þau vel, lofudu Gud, og tøludu ekki um ad fara herfør mót Rúbens og Gads nidjum til ad eyda land þeirra. 34. En Rúbens og Gads nidjar kølludu altarid: „vitni milli okkar, ad Drottinn er (vor) Gud".

## 23. Kapítuli.

*Jósúa stefnir þíng; hans áminníng til fólksins.*

1. Laungnm tíma eptir þad ad Drottinn hafdi géfid Israel frid fyrir øllum þeirra óvinum allt í kríng, og Jósúa var mjøg hnígin á hinn efra aldur, 2. kalladi hann saman allan Israels lýd, øldúngana, høfdíngjana, dómendur og skrifara, og sagdi til þeirra: gamall gjørist eg nú og aldurhníginn; 3. þér hafid sjálfir sjed allt þad sem Drottinn, ydar Gud hefir gjørt øllum þessum heidíngjum ydar vegna, því Drottinn, ydar Gud, hefir barist fyrir ydur. 4. Sjáid! med hlutkésti hefi eg úthlutad sérhvørri ættkvísl ydar til arfs þeim heidíngjum, sem enn eru eptir, og eins øllum þeim heidíngjum, sem eg hefi eydt, frá Jórdanará til hafsins mikla, þar sem sólin geingur nidur; 5. og Drottinn ydar Gud mun støkkva þeim undan ydur, og útreka þá frá ydur og þér skulud fá land þeirra til eignar, einsog Drottinn, ydar Gud, hefir lofad ydur 6. verid nú einhuga í því, ad halda og gjøra allt þad sem fyrirskrifad er í løgbók Mósis, svo þér skeikid ekki þarfrá til hægri né vinstri handar; 7. svo ad þér samlagid ydur ekki þeim þjódum, sem eptir eru hjá ydur, nefnid ekki Gudi þeirra á nafn, sverjid ekki vid þá, þjónid þeim ekki, og fallid ekki fram fyrir þeim, 8. heldur verid fastheldnir vid Drottinn ydar Gud, einsog þér híngadtil hafid verid; 9. hann hefir líka rekid upp frá ydur miklar og voldugar þjódir, og hefir einginn gétad veitt ydur mótstødu til þessa. 10. Þúsund þeirra skal fyrir einum ydar flóttafør fara, því Drottinn ydar Gud, berst fyrir ydur, einsog hann hefir lofad ydur. 11. Gjætid þarfyrir vandlega ydar hugskots, svo ad þér elskid Drottinn, ydar Gud. 12. En ef þér snúid ydur frá honum, og adhyllist þær þjódir, sem enn eru eptir hjá ydur, bindid teingdir vid þær og blandist vid þær, og þær vid ydur, 13. þá vitid fyrir víst, ad Drottinn ydar Gud, mun ekki framar støkkva þessum þjódum burt frá ydur, heldur skulu þær verda ydur ad snøru og fótakéfli, ad hirtíngar hrísi á ydur og ad þyrnum í ydar augum, þartil þér verdid afmádir úr þessu góda landi, sem Drottinn, ydar Gud, hefir géfid ydur. 14. Sjáid! senn geing eg veg allrar veraldar, en þér skulud vita af øllu ydar hjarta, og allri ydar sálu, ad ekkért hefir brugdist af øllum þeim fyrirheitum, sem Drottinn, ydar Gud, hefir géfid

ydur; øll eru þau uppfylt, svo ekkért hefir á-
brostid. 15. En einsog øll fyrirheit Drottins,
ydar Guds, hafa rætst á ydur, svo mun Drott-
inn láta allar sínar hótanir á ydur rætast, þar
til hann hefir afmád ydur af þessu góda landi,
sem Drottinn, ydar Gud, hefir géfid ydur.
16. Ef þér rjúfid þad sáttmál, sem Drott-
inn, ydar Gud, baud ydur ad halda, farid og
þjónid annarlegum gudum, og tilbidjid þá, þá
skal reidi Drottins upptendrast gégn ydur, og
ydur skal skyndilega verda í burtu svipt úr
þessu fagra landi, sem hann hefir géfid ydur.

## 24. Kapítuli.

*Jósúa stefnir þíng í sídasta sinn; hann og Eleasar prestur deya.*

1. Jósúa stefndi saman øllum Israels ætt-
kvíslum til Sikkems og samankalladi øldúnga
Israels, høfdíngja, dómendur og skrifara, og
sem þeir komu fram fyrir auglit Guds, 2. þá
sagdi Jósúa til alls lýdsins: svo segir Drottinn,
Israels Gud: þeir lángfedgar ydar, Tara, sem
var fadir þeirra Abrahams og Nakórs, bjuggu
fordum fyrir austan fljót (Efrat) og þjónudu
annarlegum gudum; 3. en eg tók fødur ydar
Abraham handan yfir fljótid, og lét hann fara
um kríng í øllu Kanaanslandi, fjølgadi hans af-
komendum, og gaf honum Isaak; 4. Isaaki
gaf eg þá Jakob og Esaú, Esaú gaf eg Seirs
fjall til eignar, en Jakob flutti med sonum sín-
um til Egyptalands. 5. Eptir þad sendi eg
þá Móses og Aron, og plágadi Egyptaland med
þeim (undrum), sem eg lét þar verda og leiddi
ydur sídan út þadan. 6. Þá eg leiddi fedur
ydar útaf Egyptalandi, komu þeir til hafsins,
en Egyptar veittu þeim eptirfør bædi á vøgnum
og med riddara lidi til rauda hafsins; 7. þá
kølludu þeir til Drottins, og hann setti myrkur
á millum ydar og þeirra Egyptsku, lét sjó falla
yfir þá, svo hann huldi þá; sjálfir hafid þid
sjed hvad eg gjørdi í Egyptalandi. Eptir þad
áttud þér lánga dvøl í eydimørku, 8. þángad-
til eg leiddi ydur í land Amoríta, sem bjuggu
hinumegin Jórdanar, þeir fóru til strídls á móti
ydur, en eg gaf þá í ydar vald; þér løgdud
undir ydur land þeirra, og eg eydilagdi þá fyr-
ir ydur. 9. Þá bjó Balak Sipporsson Móa-
bíta kóngur sig til stríds og bardist vid Israel,
gjørdi hann ord Bileami Beórssyni, ad hann
kjæmi og bølvadi ydur; 10. en eg vildi ekki
heyra Bileam, heldur hlaut hann ad blessa yd-
ur, frelsadi eg ydur þannig frá óbænum hans.
11. Fórud þér þá yfirum þessa Jórdan, og
komud til Jeríkóar, áttu borgarmenn Jeríkóar, bædi
Amorítar, Feresítar, Kananítar, Hetítar, Girge-
sítar, Hevítar og Jebúsítar orrustur vid ydur,
en eg gaf þá í ydar hendur. 12. Sendi eg þá
geitúnga á undan ydur, sem støkktu þeim frá
ydur, þeim tveimur Amoríta Kóngum, en hvørki
sverd þitt né bogi; 13. gaf eg ydur svo land þad,
sem þér ekki sjálfir høfdud ræktad, stadi þá gaf
eg ykkur ad búa í, sem þér ekki høfdud byggt,
og þér njótid nú ávaxtanna af þeim víngvidar
og vidsmjørs gørdum, sem þér ekki høfdud
plantad. 14. Óttist því Drottinn og þjónid
honum dyggilega og einlæglega; rekid burt þá
gudi sem fedur ydar þjónudu fyrir austan fljót-
id (Efrat) og í Egyptalandi, en þjónid Drottni.
15. En lítist ydur ekki ad þjóna Drottni,
kjósid þá í dag hvørjum þér viljid þjóna, hvørt
heldur gudum þeim sem fedur ydar þjónudu,
fyrir austan fljót eda gudum Amorítanna, hvørra
land þér nú byggid; en eg og mínir ættmenn
munum Drottni þjóna.

16. Þá svaradi lýdurinn og sagdi: þad veri
lángt frá oss ad yfirgéfa Drottinn, til ad þjóna
annarlegum gudum! 17. Því Drottinn er vor
Gud, hann sem hefir leidt oss og vora fedur úr
Egyptalandi, því þrældómshúsinu, og sem hef-
ir svo mikil stórmerki gjørt ad oss ásjáendum,

varðveitt oss á øllum þeim vegi sem vér høfum farid, og medal allra þeirra þjóda, um hvørra lønd leid vor hefir leigid, og rekid frá oss allar þjódir, og einnig Amoríta, sem búa í þessu landi; 18. þarfyrir viljum vér líka Drottni þjóna, því hann er vor Gud.

19. Jósúa sagdi til fólksins: ekki gétid þér Drottni þjónad, því hann er heilagur Gud; vandlátur Gud er hann, og mun ekki fyrirgéfa ydar afbrot og syndir; 20. en ef þér yfirgéfid Drottinn og þjónid útlendum gudum, þá mun hann aptur á móti láta íllt yfir ydur koma, og gjøra út af vid ydur, eptir þad hann hefir gjørt ydur gott. 21. Þá sagdi lýdurinn vid Jósúa: nei! því vér viljum þjóna Drottni. 22. Jósúa sagdi þá vid fólkid: þér skulud vera vitni gégn sjálfum ydur, ad þér hafid kosid ad þjóna Drottni; þeir svørudu: vér viljum vera þad. 23. Kastid þá burt þeim útlendu gudum, sem hjá ydur eru, og hneigid ydar hjørtu til Drottins, Israels Guds. 24. Lýdurinn sagdi þá vid Jósúa: Drottni Gudi vorum viljum vér þjóna og hlýda hans røddu! 25. Gjørdi þá Jósúa sama dag sáttmál vid lýdinn, og setti honum løg og rétt í Sikkem. 26. Allt þetta skrifadi Jósúa í Guds løgmálsbók, og tók stóran stein og reisti hann þar upp undir einni eik, sem stód hjá helgidómi Drottins. 27. Þá sagdi Jósúa til alls fólksins: sjáid! þessi steinn skal vera vitni móti oss; því hann hefir heyrt allt, sem Drottinn hefir vid oss talad, og hann skal vera vitni gégn ydur, svo ad þér ekki afneitid ydar Gudi. 28. Lét Jósúa þá fólkid fara, hvørn til síns eignarlands.

29. Eptir ad þetta var skéd, andadist Jósúa Núnsson, Drottins þjón, hafdi hann þá tíu um tírædt, 30. var hann greftradur í eignarlandi hans hjá Timnat-Serak á Efraíms fjalli fyrir nordan Gaas fjall. 31. Þjónadi Israel Drottni medan Jósúa lifdi, og þeir øldúngar, sem leingi lifdu eptir hann, og sjed høfdu allt þad, sem Drottinn hafdi gjørt fyrir Israel.

32. Jóseps bein, sem Israels menn høfdu flutt frá Egyptalandi, grófu þeir í Sikem, í akurlendi því, sem Jakob hafdi keypt ad nidjum Hemors, fødur Sikems, fyrir hundrad Kesíta *), og sem vard eign Jóseps nidja.

33. Eleasar Aronsson andadist og var jardadur á hæd þeirri, sem Pineas átti, sonur hans, og sem honum hafdi verid géfin á Efraíms fjalli.

---

# Dómaranna Bók.

## 1. Kapítuli.

Júda ættkvíslar herfarir móti Kananítum.

1. Og þad bar til, eptir dauda Jósúa, ad Israels børn spurdu Drottinn ad, og søgdu: hvør af oss skal fyrst taka sig upp móti Kananítunum, til ad heya stríd vid þá? 2. Drottinn svaradi: Júda (kynþáttur) skal (fyrst) taka sig upp; sjá! eg hefi géfid landid í hans hendur! 3. Þá sagdi Júda til bródur síns Síméons: far þú med mér, til míns hlutskiptis **),

*) Þ. e. oss ókunnur peningur, 1 Mós. 33, 19. **) V. 3. hlutskipti; þad er þess parts af landinu, sem Júda kynkvísl hafdi hlotnast ad búa í.

og látum oss berjast vid Kananítana, svo vil eg aptur fara med þér til þíns hlutskiptis, og svo fór Síméón med honum. 4. Sídan tók Júda sig upp, og Drottinn gaf Kananíta og Feresíta í þeirra hönd; og þeir lögdu ad velli í Besek tíu þúsundir manna. 5. Þá fundu þeir Adoni Besek í Besek og bördust vid hann; og þeir unnu þá Kananíta og Feresíta. 6. En Adoní Besek flúdi, og þeir veittu honum eptirför; og sem þeir nádu honum, hjuggu þeir þumalfíngur og þumaltær af höndum hans og fótum. 7. Þá sagdi Adoni Besek: sjötíu Konúngar, af hvörjum þumalfíngur og þumaltær afhöggnar voru, máttu tína upp (molana) undir mínu bordi; en eins og eg breytti (vid þá), eins hefir nú Gud endurgoldid mér. Og þeir fluttu hann til Jerúsalem, og þar deydi hann.

[ 8. Því Júda börn höfdu (ádur) herjad á Jerúsalem, unnid hana og slegid fólkid sverdseggjum, og þeir (höfdu) lagt eld í borgina. 9. Þar eptir höfdu þeir farid ad berjast vid Kananíta, sem bjuggu á fjallbygdum, og í sudurátt, og á láglendi. 10. Sömuleidis hafdi Júda farid móti Kananítunum í Hebron (en Hebron kalladist í fyrri tíd Arbaborg); og sleigid Sesaí, Ahiman og Talmai. 11. Hann hafdi haldid þadan móti innbyggjurunum í Debír, (en Debír nefndist fordum Sefer borg). 12. En þá Kaleb hafdi sagt: hvörjum sem herjar uppá borgina Sefer og inntekur hana, skal eg géfa dóttur mína Aksa til eiginkvinnu. 13. Þá inntók Otníel sonur Kenas, Kalebs yngra bródurs, borgina; og hann gaf honum sína dóttur Aksa, til eiginkonu. 14. Og þad skédi, þegar hún ætladi heim til hans, ad hún upphvatti hann, ad beidast akurs, af födur sínum, og hún stökk af baki asnanum; þá sagdi Kaleb til hennar: hvad geingur ad þér? 15. Hún sagdi þá til hans: géfdu mér eina blessun! þar þú hefir géfid mér þurrlendi, þá géfdu mér líka land, sem hefir uppsprettu brunna! og hann gaf henni (land sem) uppsprettu lyndir (hafdi), bædi fyrir ofan og nedan. 16. Og nidjar þess Kenítiska manns, mágs Mósis, höfdu farid úr Pálmastadnum, med börnum Júda, upp til Júda eydimerkur, sem liggur fyrir sunnan Arad; því hann hafdi farid, til ad búa þar medal fólksins ].

17. Nú fór Júda af stad med bródur sínum Síméón, og þeir unnu Kananítana, sem bjuggu í Sefat, gjöreyddu þeim, og kölludu þann stad Horma. 18. Sídan inntók Júda (borgina) Assa, og hennar landeign; Asklon og hennar landeign; og Ekron, og þad sem undir hana lá. 19. Og Drottinn var med Júda, svo hann gat unnid þá sem á fjöllunum bjuggu; en ei fékk hann útrekid dalbúana, því þeir höfdu járn (=slegna) vagna. 20. Og þeir gáfu Kaleb Hebron eins og Móses hafdi sagt, og hann útrak þadan þá þrjá Enaks sonu. 21. En Benjamíns börn útráku ekki Jebúsítana, sem bjuggu í Jerúsalem, heldur hafa Jebúsítar búid hjá Benjamíns börnum í Jerúsalem, allt framm á þenna dag.

22. Jóseps nidjar fóru og svo (med hernadi) á móti Betel, og Drottinn var med þeim. 23. Og Jóseps nidjar héldu njósn um Betel, (hvörrar borgar nafn fordum var Lús): 24. en sem vardhaldsmennirnir (sem njósnudu) sáu mann nokkurn gánga út af borginni, sögdu þeir til hans: sýn þú oss, hvar vér gétum komist inní borgina, og skulum vér þá veita þér misk-

V. 5. Adoni Besek, kann útleggjast Drottnarinn í Besek. V. 10. Jós. 15, 14. V. 11. Jós. 12, 13. C. 15, 15. V. 13. Jós. 15, 17. og s. fr. V. 15. Blessun; hún meinti ávaxtarríkt land. V. 16. Dóm. 4, 17. 4 Mós, 10, 29. V. 17. 4 Mós. 14, 45. C. 21, 3. V. 18. Jós. 15, 46. 47. V. 19. Jós. 17, 16. V. 20. Jós. 14. 13. 4 Mós. 14, 24. V. 21. Jós. 15, 63. V. 23. 1 Mós. 28, 19.

un. 25. Og sídan, þegar hann hafdi vísad þeim á inngáng í borgina, slóu þeir hana med sverdseggjum, en manninum og øllu hans hyski slepptu þeir. 26. Þá fór hinn sami madur í land Hetítanna, hvar hann bygdi borg, og kalladi nafn hennar Lús; og heldur hún því nafni allt til þessa dags.

27. Og Manassis (ættkvísl) útrýmdi ekki (innbyggjurunum í) Betsean og hennar smástødum; ei heldur í Taanak og hennar stødum; ei heldur innbyggjurunum í Dór og hennar stødum; ei heldur þeim sem bjuggu í Jibleam og hennar stødum; né þeim sem bjuggu í Megiddo og hennar stødum. Og Kananítum gédjadist ad búa þar í landinu. 28. En sem Ísraels lýdur gjørdist mektugur, lagdi hann skatt á Kananíta en útrýmdi þeim ei øldúngis.

29. Ei heldur útrýmdi Efraim Kananítunum, sem bjuggu í Geser, en Kananítarnir bjuggu medal þeirra í Geser.

30. Sebúlon útrak og ekki innbyggendurna í Kítron edur innbyggendurna í Nahalól, heldur bjuggu Kananítar medal þeirra og voru skattgyldir.

31. Aser útrak ei heldur innbygg jarana í Akko, né innbyggjarana í Sídon, í Aholab, í Aksib, í Helba, í Afík og í Rehob. 32. Heldur bjuggu Asers nidjar medal Kananítanna, sem voru í landinu, því þeir høfdu ekki útrýmt þeim.

33. Naftalim útrýmdi og ekki innbyggjurunum í Betsemes, ei heldur þeim í Bet-Anat, heldur bjuggu þeir medal Kananítanna, sem voru í landinu; þó voru innbyggjararnir í Bet-semes og Bet-anat skattgyldir.

34. En Amorítarnir þreyngdu Dans børnum uppá fjallid, og lidu þeim ekki ad setjast ad í dalnum. 35. Og Amorítunum féll í géd ad búa á fjallinu Heres, hjá Ajalon og Saalbím; þó var hønd Jóseps nidja of þúng á þeim, svo þeir urdu skattgyldir. 36. En landamerki Amorítanna voru þar sem geingid er uppá (fjallid) Akrabbim, frá klettinum og þar uppeptir.

## 2. Kapítuli.

*Ísraels manna dádleysi, afgudadýrkun og straff. Dómararnir.*

1. Og Eingill Drottins kom frá Gilgal til Bokím, og sagdi: eg hefi leidt ydur upp híngad frá Egyptalandi, og fært ydur í þad land, sem eg sór fedrum ydar, og sagdi: eg skal aldrei mínum sáttmála vid ydur raska ad eilífu. 2. En þér áttud (aptur á móti) eingan sáttmála ad gjøra vid þessa lands innbyggjara, heldur nidurbrjóta þeirra ølturu. En þér hlýddud ekki minni raust, því hafid þér svoleidis breytt? 3. Þess vegna þá segi eg (sem fyrri), eg vil ekki útrýma þeim frá ydur, heldur skulu þeir vera ydur til mædu, og gudir þeirra skulu vera ydur til snøru. 4. Og þad skédi, þegar Eingill Drottins hafdi talad þessi ord til allra Ísraels barna, þá upphóf fólkid sína rødd og grét. 5. Þeir nefndu svo þann sama stad Bokím, og færdu þar Drottni fórnir.

6. Því eptir þad Jósúa hafdi látid fólkid frá sér, og Ísraels børn voru frá honum farin, hvør til sinnar eignar, til ad taka vid sínum erfdahluta í landinu; 7. þá hafdi fólkid þjónad Drottni, svo leingi sem Jósúa lifdi, og svo leingi þeir eldstu voru á lífi, sem leingi lifdu eptir hans dag, hvørjir ed sjed høfdu øll þau miklu verk Drottins, er hann hafdi gjørt vid Ísrael. 8. En sem Jósúa sonur Nún, Drottins þénari, var andadur, sem vard hundr-

V. 25. Jós. 6, 25. V. 26. Jós. 16, 2. 17, 11 sqv. V. 27. Jós. 17, 11. 12. V. 29. Jós. 16, 10. V. 1. 2 Mós. 12, 51. Jós. 21, 43. 1 Mós. 17, 7. 8. V. 2. 2 Mós. 23, 32. og s. fr. 4 Mós. 33, 52. 5 Mós. 7, 5. V. 5. Bokím þ. e. grátandi. V. 6. 7. Jós. 24, 28. 31. V. 9. Jós. 24, 29. 30.

ad og tíu ára gamall, og hvørn þeir jørdudu í Tímnat-Heres, á landamerkjum hans erfda parts, á Efraims fjalli, nordurundan fjallinu Gaas; 10. og þegar þeir allir, sem lifad høfdu á sama tíma, voru safnadir til sinna fedra, og komin var upp annar ættlidur, eptir þá, sem ekki þekkti Drottinn, né heldur þau verk, sem hann hafdi gjørt vid Ísrael; 11. þá gjørdu Ísraels børn íllt fyrir augum Drottins, og þjónudu (heidíngja gudunum) Baalím, 12. en yfirgáfu Drottinn sínna fedra Gud, hvør ed þá hafdi útleidt af Egyptalandi, og adhylltust annarlega Gudi; þeirra þjóda Gudi, sem bjuggu í kríngum þá, og þeir tilbádu þá og styggdu Drottinn, 13. og þá þeir yfirgáfu Drottinn, en þjónudu Baal og Astarot, 14. þá upptendradist reidi Drottins yfir Ísrael, og hann gaf þá í reifara hendur, sem ræntu þá; og hann seldi þá í hendur óvina þeirra allt í kríngum þá; svo þeir gátu ekki framar veitt þeim mótstødu. 15. Og á hvørn helst hátt, sem þeir báru sig ad, þá var hønd Drottins í móti þeim til ólukku; allt eins og Drottinn hafdi sagt og svarid þeim; og þeir þjøkudust yfrid þúnglega. 16. Þá uppvakti Drottinn þeim dómara, sem frelsudu þá af hendi þeirra, sem þá ræntu. 17. En þeir voru þá ei heldur þeim dómurum hlýdnir, heldur féllu þeir til elsku annarlegra guda og tilbádu þá, og viku brádlega af þeim vegi, sem fedur þeirra høfdu geingid á, hvørjir ed hlýddu Drottins bodum; en þeir (nidjarnir) breyttu ekki svoleidis. 18. Og þá Drottinn uppvakti þeim dómara, þá var Drottinn med dómaranum, og frelsadi þá af hendi óvina þeirra, svo leingi dómarinn lifdi; því Drottinn sá aumur á kveinun þeirra, yfir þeim sem þvíngudu þá, og ad þeim þreyngdu. 19. En undir eins og dómarinn deydi, snéru þeir sér og breyttu verr enn fedur þeirra, í því ad fylgja annarlegum gudum, þjóna þeim og tilbidja þá; þeir viku ekki frá sínni fyrirtekt né af sínum forherdíngar vegi. 20. Þar fyrir upptendradist reidi Drottins móti Ísrael, svo hann sagdi: søkum þess ad þetta fólk hefir yfirtrodid mitt løgmál, sem eg hafdi bodid fedrum þeirra, og hefir ekki hlýdt minni raust, 21. þá vil eg ei heldur hér eptir útreka neinn af þeim heidíngjum, sem Jósúa eptirskildi, þegar hann deydi; 22. til ad reyna Ísrael med þeim, hvørt þeir vilja vardveita vegi Drottins og gánga á þeim, eins og forfedur þeirra, edur ekki. 23. Svo lét Drottinn þessa heidíngja vera, og útrýmdi þeim ekki brádlega; þá sem hann hafdi ekki (annars) ofurseldt í hendur Jósúa.

## 3. Kapítuli.

*Outreknir heidíngjar. Otniel, Ehúd og Samgar.*

1. En þessir eru þeir heidíngjar, sem Drottinn lét eptir vera, til ad reyna Ísraelsmenn med (alla þá, sem ei høfdu kénnt á bardøgunum í Kanaan, 2. einkum til þess ad Ísraelsbarna nidjar skyldu læra ad heya orrustur, sérdeilis þeir, sem af eigin sjón, ekki høfdu (ádur) til þeirra þekkt), (nefnilega): þeir fimm Filistea høfdíngjar, 3. og allir Kananitar og Sídónítar og Hevítar, sem bjuggu hjá fjallinu Líbanón, í frá fjallinu Baal-Hermon, allt til þess komid er til Hamat. 4. Og þessir vóru eptir, til þess Ísrael skyldi reynast med þeim, svo þad yrdi augljóst, hvørt þeir vildu hlýda bodordum Drottins, sem hann hafdi sett þeirra forfedrum, fyrir hønd Mósis.

V. 10. 2 Mós. 1, 8. V. 11. Dóm. 3, 7. V. 13. Dóm. 10, 6. V. 14. Dóm. 3, 8. 10, 7. V. 15. 3 Mós. 26, 17. 5 Mós. 2, 15. 28, 20. V. 16. Dóm. 3, 9. 15. V. 17. 3 Mós. 17, 7. 20, 5. féllu þeir til elsku Hebr: drýgdu hór med annarlegum gudum. V. 18. Sjá v. 7. C. 10, 16. V. 20. Sjá v. 14. V. 22. Sjá C. 3, 1. 4. 5 Mós. 8, 2. V. 1. 5 Mós. 7, 22. 8, 2. V. 3. Dóm. 16, 5. 5 Mós. 3, 8. Jós. 11, 3. V. 4. 5 Mós. 8, 2. Dóm. 2, 22. 2 Kron. 32, 31.

5. Þegar nú Ísraelsbørn bjuggu þannig midt á medal Kananíta, Hetíta, Amoríta, Feresíta, Hevíta og Jebúsíta, 6. geingu þeir ad eiga dætur þeirra og gáfu þeirra sonum sínar dætur og þjónudu þeirra gudum. 7. Og Ísraelsbørn frømdu þad sem íllt var í augliti Drottins, gleymdu Drottni Gudi sínum og þjónudu Baalim og skógarlundunum *). 8. Þá upptendradist reidi Drottins móti Ísrael, svo hann seldi þá undir hønd Kúsan-Rísataíms Kóngs af Mesópótamía; og Ísraelsbørn þjónudu Kúsan-Rísataím í 8 ár. 9. Þá hrópudu Ísraels børn til Drottins, og Drottinn uppvakti þeim frelsara, sem hjálpadi þeim; nefnilega: Otníel son Kenas, Kalebs ýngra bródurs. 10. Í honum var andi Drottins, svo hann gjørdist dómari í Ísrael; og hann fór út (og lagdi) til bardaga vid Kúsan-Rísataím, Kónginn af Mesópótamía, og Drottinn gaf hann í hans hønd, svo hann vard honum yfirsterkari. 11. Svo var landid í kyrdum í 40 ár, og Otníel sonur Kenas deydi.

12. En sem Ísraelsbørn héldu áfram ad gjøra hvad íllt var í augliti Drottins; þá efldi Drottinn Eglon, Kóng Móabítanna, gégn Ísrael, vegna þess þeir frømdu íllt fyrir Drottni. 13. Og hann safnadi til sín Ammonsbørnum og Amalekítum, ferdadist af stad og vann Ísrael, og tók Pálmastadinn frá þeim. 14. Og Ísraelsbørn þjónudu Eglon, Móabíta Kóngi, í 18 ár. 15. Þá hrópudu þeir til Drottins, og Drottinn uppvakti þeim frelsara, Ehúd, son Gera, Benjamíníta, sem var ørfhendtur. Og Ísraelsbørn sendu Eglon, Móabíta Kóngi, gáfur med honum. 16. En Ehúd hafdi tilbúid sér álnarlánga tvíeggjada lensu, hvørja hann batt undir klædum sínum, vid sitt hægra læri. 17. Og hann færdi Eglon, Móabíta Kóngi, gáfuna, (en Eglon var mjøg feitur madur). 18. Og sem hann var búinn ad afgreida gáfuna, fór hann med fólkinu, sem gáfuna hafdi borid. 19. En (sjálfur) snéri (hann) tilbaka frá skurdgodunum í grend vid Gilgal, og lét segja (Kónginum): eg hefi, ó! Kóngur! nokkur leyndarmál ad segja þér. En Kóngurinn sagdi: hafdu ekki hátt! og allir þeir geingu út, sem kríngum (Kónginn) stódu. 20. En Ehúd gékk til hans, þar sem hann sat aleinn í sínum sumarsal; og Ehúd mælti: eg hefi erindi frá Gudi vid þig, og þá stód Kóngur upp af stóli sínum. 21. En Ehúd rétti út sína vinstri hønd, og greip lensuna af sínu hægra læri, og lagdi hann med henni í kvidinn, 22. svo ad handfángid gékk inn í kvidinn eptir bladinu, og ístran huldi (alla) lensuna (því hann dróg hana ei út aptur úr kvidi hans), og hún gékk ígégnum hann út um bakid. 23. Og Ehúd gékk út ígégnum forsalinn, og lét aptur dyrnar eptir sér og læsti. 24. En sem hann var útgeinginn, komu þénarar (Kóngsins), og sáu, ad dyrnar á salnum vóru læstar, og þeir søgdu: vissulega hefir (Kóngurinn) geingid til þarfinda sinna, í nádhúsid, hjá salnum. 25. En sem þeir bidu svo leingi, ad þeir blygdudust vid, þar eingin lauk upp dyrunum á salnum, þá tóku þeir lykilinn og luku upp; og sjá! þá lá þeirra Herra daudur á gólfinu. 26. En Ehúd komst undan medan þeir støldrudu vid, og hann gékk fram hjá skúrdgodunum og komst til Seirat. 27. Og sem hann var þángad kominn, og hafdi blásid í básúnu á Efraimsfjalli, fóru Ísraels børn ofanaf fjallinu med honum, og hann var

V. 6. 2 Mós. 34, 16. 5 Mós. 7, 3. V. 7. Dóm. 2, 11. *) Adr: afgudabhlætunum. V. 8. Dóm. 2, 14. 20. 4, 2. V. 9. Dóm. 6, 6. Jós. 15, 17. Dóm. 1, 13. V. 12. Dóm. 4, 1. 6, 1. V. 13. Dóm. 1, 16. 5 Mós. 34, 3. V. 15. Dóm. 20, 16. V. 20. 4 Mós. 23, 18. V. 24. Geingid til þarfinda, Hebr. ad hylja fætur sínar. V. 26. Dóm. 3, 19.

þeirra fyrirlidi. 28. Og hann sagdi til þeirra:
fylgid mér eptir, því Drottinn hefir géfid yd-
ar óvini, Móabítana í ydar hendur; og þeir
fylgdu honum, og tóku øll vød á Jórdan fyrir
Móabítum, og létu aungan mann þar yfir
komast. 29. Og þeir feldu Móabítana á þeim
degi, nær tíu þúsundir manna; alla þá gyld-
ustu og hraustustu strídsmenn, svo þar komst
ekki einn madur undan. 30. Svo urdu Móa-
bítarnir á þeim degi sigradir af Israelsfólki,
og landid hafdi frid í 80 ár.

31. Eptir þenna (Ehúd) var Samgar (uppi)
sonur Anat; hann sló sex hundrud Filistea med
nautapriki, og hann frelsadi líka Israel.

## 4. Kapituli.

Debóru, Baraks, og Jaels afreksverk.

1. Og Israels børn héldu áfram ad gjøra
íllt í augum Drottins, þá Ehúd var daudur.
2. Og Drottinn seldi þá í hendur Jabíns Kan-
aníta Kóngs, sem ríkti í Hasor; en Sísera var
hans hershøfdíngi sem bjó í Haroset hinna
heidnu. 3. Og Israels børn hrópudu til
Drottins; því hann hafdi 9 hundrud járn (-slegna)
vagna, og hafdi undirokad Israels børn med of-
beldi í 20 ár.

4. Á þessum tíma var spákonan Debóra, dóm-
ari í Israel, eiginkvinna Lapídots. 5. Og hún
bjó undir Debóru-pálmatré, millum Rama og
Betel á Efraims fjalli; og Israels børn fóru
þángad upp til hennar til ad sækja rétt sinn.
6. Hún sendi út og lét kalla til sín Barak Abí-
nóamsson frá Kedes í Naftalím, og sagdi til
hans: hefir ekki Drottinn Israels Gud skipad
þér? far þú og safna fólki til þín uppá fjallid
Tabor, og tak 10 þúsundir manns af Naftal-
íms-og Sebúlons-børnum. 7. Og eg vil leida
Sisera, Jabíns hershøfdíngja til þín, hjá vatns-
fallinu Kíson med sína vagna og allan her; og
eg vil géfa hann í þínar hendur. 8. Barak
sagdi til hennar: ef þú vilt fara med mér, vil
eg fara; en ef þú vilt ekki med mér fara, fer eg
hvørgi. 9. Hún sagdi: fara vil eg med þér;
en einga frægd muntu hafa af før þessari, sem
þú fer, því Drottinn mun géfa Sísera í hønd
einnar kvinnu; og sídan tók Debóra sig upp og
fór med Barak til Kedes. 10. Þá kalladi
Barak Sebúloníta og Naftalímíta saman til Ke-
des, og undir hans forgaungu fóru med honum,
10 þúsundir manns. Debóra var og í før med
honum. 11. (En Heber einn af Kenítum, hafdi
skilid sig frá fólki sínu, hvør kominn var af børn-
um Hóbabs Mósis mágs; hann hafdi sett tjald
sitt hjá eikinni Saanajim, hjá Kedes). 12.
Þegar nú Sísera fékk ad vita ad Barak, Abínó-
amsson, var kominn á fjallid Tabor, 13. tók
hann sig upp med øllum sínum vøgnum, sem
voru 900 járn (-slegnir) vagnar, og øllu því
lidi, sem med honum var og fór frá Haróset
heidíngjanna, allt ad vatnsfallinu Kíson. 14.
Og Debóra sagdi til Barak: rís þú upp, því
þetta er dagur sá, á hvørjum Drottinn géfur
Sísera í þínar hendur; eda mun ekki Drottinn
fara út á undan þér? Svo fór Barak nidur
af fjallinu Tabor, og 10 þúsund manna med
honum. 15. Og Drottinn rak á flótta Sísera
og alla hans vagna og allan herinn fyrir Bar-
aks sverdseggjum; svo Sísera støkk af sínum
vagni og flúdi undan á fæti. 16. En Barak
elti vagnana og herinn allt til Haróset heid-
íngjanna, og allt herlid Sísera féll fyrir sverds-
eggjum, svo ekki vard einn eptir. 17. En Sí-
sera flúdi á fæti í tjaldbúd Jaels, sem var hús-
freya Kenítans Hebers; því Jabín Kóngur í

V. 31. Dóm. 5, 6. V. 1. Dóm. 3, 12. 6, 1. 8, 33. V. 2. Dóm. 3, 8. 1 Sam. 12, 9. V. 3. Dóm. 3, 9. 14. 6, 6. V. 6. Jós. 19, 37. 21, 32. V. 11. Dóm. 1, 16. 4 Mós. 24, 22. 4 Mós. 10, 29. V. 14. Dóm. 5, 12. V. 15. Dóm. 5, 20. Sálm. 83, 10. V. 16. Dóm. 3, 29. Jós. 8, 22. 10, 33.

Hasór og hús Kenítans Heber høfdu frid sín á
milli. 18. Þá gékk Jael út á móti Sísera, og
sagdi til hans: kom inn, minn herra! kom inn
til mín, og vertu óhræddur. Og hann veik inn
til hennar í tjaldbúdina, og hún lagdi ábreídu
yfir hann. 19. Hann sagdi þá til hennar: eg
bid, géf mér lítid vatn ad drekka, því mig
þyrstir. Hún leysti þá frá mjólkurbelg og gaf
honum ad drekka, og breiddi (sídan) ofan á
hann (aptur). 20. Og hann sagdi til hennar:
stattu úti í tjalddyrunum, og komi einhvør sem
spyr: hvørt hér sé nokkur? þá seg þú ad hér
sé einginn. 21. Þá tók Jael Hebers kvinna
einn tjaldhæl og hamar í hønd sér, og gékk hljód-
liga inn til hans, og rak hælinn í gégnum hans
gagnaugu, svo hann nam stadar í jørdu; (því
Sísera var fallinn í fastan svefn og var þreytt-
ur) og hann deydi. 22. Og sjá! ad Barak
sókti eptir Sísera; þá gékk Jael út á móti hon-
um, og sagdi til hans: kom híngad! svo skal
eg sýna þér þann mann, sem þú leitar eptir; og
hann gékk inn til hennar; og sjá! Sísera lá þar
daudur, og hællinn stód ígégnum hans gagn-
augu. 23. Á þennan hátt nidurbeigdi Gud
á þeim tíma Jabín Kananíta Kóng fyrir Ísra-
els børnum. 24. Og Ísraels barna hønd vard
þýngri og þýngri á Jabín Kananíta Kóngi,
uns þau (loksins gjørdu útaf vid hann).

## 5. Kapítuli.

Debóru og Baraks lofsaungur.

1. Þá saung Debóra og Barak sonur Abí-
nóams á þeim sama degi segjandi:

2. Hefndir, já hefndir (eru ordnar) fyrir Ís-
rael *) — Fólkid var fúst þartil, lofid Drott-
inn — 3. Heyrid þér Kóngar! hlustid til þér
høfdíngjar! — Eg, eg vil sýngja Drottni — lof-
sýngja vil eg Drottni Gudi Ísraels! —

4. Drottinn þegar þú fórst út frá Seir —
þegar þú gékkst út frá Edoms vøllum, þá hristist
jørdin, himnarnir drupu — já af skýunum
streymdi vatnid! — 5. Fjøllin burtrunnu fyrir
Drottni — sjálft Sínaí fyrir Drottni Ísra-
els Gudi!

6. Á døgum Samgars sonar Anats — á
døgum Jaels var ekki farid um þjódvegu —
og ferdamennirnir hlutu ad fara krókóttar gøt-
ur. 7. Fyrirlida vantadi í Ísrael, þá vant-
adi *) — uns eg Debóra uppreis — uns eg
uppreis (sem) módir í Ísrael! — 8. hann (Ís-
rael) hafdi valid sér nýa gudi — þá var bar-
ist í borgarhlidunum. — Ei var þá skjøld né
spjót ad sjá á medal 40 þúsunda í Ísrael.
9. Sála mín hefir ánægju af fyrirrádendum
Ísraels — þeim medal fólksins sem fúsir eru
(til framgaungu); lofid Drottinn! — þér sem
rídid skjóttum øsnum — 10. þér sem sitjid á
(dýrum) dúkum, og þér sem farid um veginn
fótgángandi, sýngid allir! 11. Í stadinn fyr-
ir óp skotmannanna, millum vatnsbrunnanna
— skulu menn nú tala um Drottins réttlæti —
um réttlæti hans vid bændurnar í Ísrael *); —
nú kémur lýdur Drottinn nidur til portanna **)!

12. Upp Debóra, upp, upp! sýng þú lof-
saung! rís upp Barak! kom med þína herteknu,
þú, sonur Abínóams!

13. Far þú, sagdi eg, hópkorn móti þeim
sterku! fólk Drottins fari móti þeim voldugu!
14. Af þér Efraim var rót þeirra sem strídду
móti Amalek, eptir þig Benjamín, medal þíns

V. 19. Dóm. 5, 25. V. 24. Makt: hebr. hønd. V. 2. *) Þ. e. Ísrael er ordinn frí aptur; adr: fyrir frelsid unnid í Ísrael, fyrir fólkid sem fúslega bardist, lofid Drottinn! V. 4. Sálm. 68, 9. 97, 4. 114. 7. V. 6. Dóm. 3, 31. V. 7. *) Adr: Ísraels lendur láu í audn, þær láu í audn. Adr: bygdir þrutu í Ísrael, þær þrutu. V. 11. *) Adr: (fríir) frá ópi skotmanna milli vatnslindanna, skulu (Ísraelsmenn) þar vegsama velgjørdir Drottins, velgjørdir (vid) bygdir (eda fyrirlida) hans í Ísrael. **) Til portanna, eda med fridi fyrir óvinunum. V. 14. Debóra var frá Efraim, Dóm. 4, 5. af Makir nl. nidjum eldsta sonar Manassis.

fólks; frá Makír komu fyrirlidarnir og af Se-
búlon þeir sem báru herstjórnarstafinn. 15.
Høfdíngjar í Issaskars ættlegg vóru og med
Debóru; og Isaskar, Baraks athvarf, steypti
sér med honum nidur á láglendid.

En vid Rúbens læki vóru miklar rádagjørd-
ir. 16. Því satstu eptir medal saudahjardanna,
til ad heyra þeirra jarm? vid Rúbens læki vóru
miklar rádagjørdir. 17. Gílead hélt kyrru fyr-
ir hinumeigin Jórdanar; og Dan, hvar fyrir
var hann út á skipum? Aser sat kyrr vid
sjáfarhøfnina og hvíldist vid sínar víkur.

18. Sebúlons fólk hættir sínu lífi í daud-
ann — og Naftali á hædum fjallanna. 19.
Kóngar komu og stríddu (móti oss) — þá
stríddu Kóngar Kananítanna — í Taanak hjá
Megiddo vatni — en þeir feingu ekkért herfáng
í silfri. 20. Af himnum var barist (móti
þeim) — stjørnurnar frá brautum sínum, stríddu
móti Sísera. — 21. Lækurinn Kíson skoladi
þeim burt; — eldgamli lækurinn, lækurinn Kí-
son — þá undirtródst þú mín sál þá sterku!
22. Þá slitnudu hófar hestanna, af reidinni,
reid kappanna.

23. Bannfærid (stadinn) Meros segir Eing-
ill Drottins; — bannsýngid hans innbúa —
fyrir þad þeir komu ekki Drottni til hjálpar;
— Drottni til hjálpar med hetjunum!

24. Blessud veri Jael medal kvenna! —
kvinna Hebers — þess Keníta! — blessud sé
hún í tjaldbúdinni medal kvenna! — 25. Vatn
bad hana um; mjólk gaf hún, — og í kostu-
legri kønnu færdi hún honum rjóma (ostmisu).
— 26. Hælinn tók hún med sinni (vinstri)
hendi — og slaghamar med þeirri hægri, —
og rotadi Sísera — hún sundur-mardi hans
høfud og ígégnumboradi hans gagnaugu. 27.
Hann hné nidur vid hennar fætur, féll útaf
og lá þar; — hann hné og féll nidur vid
hennar fætur; einsog hann hné, svo féll hann
steindaudur.

28. Módir Síseras leit út um gluggann
— hún kalladi í gégnum gluggagrindurnar —
Því seinkar vagni hans svo mjøg, ad hann
kémur ekki? — því er vagngánga hans svo sein?
— 29. Þær vitru høfdíngskonur hennar svør-
udu — og hún sjálf sjálfri sér þannig: — 30.
Ætli þeir finni ekki herfáng og séu nú ad skipta
því: — sérhvørjum manni einni stúlku edur
tveimur; — já Sísera sjálfum ad herfángi lit-
klædum — ad herfángi mislitum útsaumudum
klædum, — útsaumudum beggja vegna um háls-
málid, ad herfángi? —

31. O! svoleidis fyrirfarist allir þínir óvin-
ir, Drottinn! — en þeir sem hann elska (verdi)
sem Sólin þegar hún frambrunar í sínum krapti!

Og eptir þetta hafdi landid frid í fjøru-
týgir ár.

## 6. Kapítuli.

Gídeons køllun. Drottins teikn.

1. Og þá Israels børn gjørdu enn íllt fyr-
ir augum Drottins, gaf Drottinn þá í hendur
Midíaníta í sjø ár. 2. En sem hønd Midian-
íta vard ofþúng á Israel, gjørdu Israels børn
sér fylsni á fjøllum uppi, hellira og vígi fyrir
Midíanítum. 3. Og þad skédi, þegar Israel
sádi nokkru (kornsædi) ad Midíanítar komu og
Amalekítar og þeir austan ad *) og yfirféllu þá.
4. Og þeir settu tjøld sín gagnvart þeim, og
gjøreyddu landsins ávexti, allt til Gasa; svo

V. 16. Rádagjørdir; því þeir efudu sig ad fara í stridid, og vildu ei yfirgéfa hjardir sínar. V. 17. Eingar þessar ættkvíslir, hvørki Gíleaditar, Danitar né Asers nidjar høfdu hjálpad til stridsins móti óvinunum. Jós. 19, 24. 29. V. 18. Dóm. 9, 17. V. 20. Af himnum var barist og s. fr. Skáldleg útmálun stórs óvedurs af hreggi 2 Mós. 14, 24. Jós. 10, 14. 42. V. 22. Kappanna, Þ. e. þegar þeir flúdu af hrædslu. V. 23. Drottni, Þ. e. Drottins fólki. V. 24. Lúk 1, 42. V. 25. Dóm. 4, 19. V. 26. Dóm, 4, 21. V. 31. Dóm. 3, 11. V. 1. Dóm. 3, 12. 4, 1. 8, 33. 10, 6. V. 3. *) Eigl. austursins synir.

þeir skildu Ísrael einga bjørg eptir, hvørki
saud, uxa né asna. 5. Því þeir komu upp
þángad med sinn kvikfénad og sínar tjaldbúd-
ir; þeir komu sem eingisprettur ad fjølda, svo
ekki vard komid tølu á þá, né þeirra úlfalda,
og þeir féllu inní landid til ad eydileggja þad.
6. Svo vard Ísrael mjøg vesæll af Midian-
ítanna vøldum, og Ísraels børn hrópudu til
Drottins. 7. En sem þeir hrópudu til Drott-
ins fyrir Midianítanna skuld, þá sendi Drottinn
spámann til þeirra, sem sagdi: 8. Svo segir
Drottinn Ísraels Gud: eg lét ydur komast
úr Egyptalandi, og leiddi ydur út úr þræl-
dómshúsinu; 9. og eg frelsadi ydur af hendi
Egyptskra, og frá allra þeirra hendi, sem ad
ydur þreyngdu, og eg útrak þá frá ydur og
gaf ydur þeirra land. 10. Og eg sagdi til
ydar: eg er Drottinn ydar Gud; óttist ekki
gudi Amorítanna, í hvørra landi þér búid, en
þér hafid ekki hlýdt minni raustu.

11. Og Drottins Eingill kom og setti sig
undir eikina í Ofra, sem tilheyrdi Jóas, Abí-
Esríta; en hans sonur Gideon var ad þreskja
hveiti í pressu, svo hann gjæti (sem fljótast)
flutt þad burt frá augum Midianítanna. 12.
Þá byrtist Drottins Eingill honum og sagdi
til hans: Drottinn er med þér, þú strídskappi!
13. Þá sagdi Gídeon til hans: æ minn
Herra! ef Drottinn er med oss, því hefir þá
allt þetta fram vid oss komid? og hvar eru
allar þær hans dásemdir, sem forfedur vorir
hafa skýrt oss frá, segjandi: hefir Drottinn
ekki leidt oss úr Egyptalandi? enn nú hefir
Drottinn yfirgéfid oss, og seldt oss í hendur
Midianítanna.

14. Þá snéri Drottinn sér til hans og sagdi:
far af stad í þessum þínum styrkleika, og þú
skalt frelsa Ísrael af Midianítanna hendi; hefi
eg ekki sendt þig? 15. Og hann (Gídeon)
sagdi til hans: æ Herra minn! med hvørju
skal eg frelsa Ísrael? minn ættleggur er sá
minnsti í Manasse, og eg er sá ýngsti í míns
fødurs húsi. 16. Og Drottinn sagdi til hans:
sannarlega vil eg vera med þér, og þú munt
sigra Midianítana, sem væru þeir einn madur.
17. En Gídeon sagdi til hans: ó! hafi eg nú
fundid nád fyrir þínum augum, þá gjørdu eitt
teikn fyrir mér, (um þad) sem þú talar vid
mig. 18. Eg bid þig, far ekki hédan burtu,
fyrr enn eg kém aptur til þín, og færi þér mína
gáfu, og set hana framm fyrir þig; og hann
svaradi: eg vil bída hér, þángad til þú kémur
aptur. 19. Sídan kom Gídeon aptur, og þeg-
ar hann hafdi tilreidt hafur kid, og ósýrdar
(køkur) úr einni Efa mjøls, lagdi hann kjøtid í
kørfu, en lét sodid í pott, og kom med þetta út
til hans undir eikina, og bar þad framm. 20.
Þá sagdi Eingill Guds til hans: tak kjøtid
og þad ósýrda braud, og legg þad uppá klett
þennan, en steyp sodinu út (yfir); og hann
gjørdi svo. 21. Þá útrétti Drottins Eingill
staf þann, sem hann hafdi í hendi, og snart
kjøtid og þad ósýrda braud med stafs enda og
eldur spratt upp af klettinum og eyddi kjøtinu,
og því ósýrda braudi, og Drottins Eingill hvarf
frá hans augum. 22. Sem nú Gídeon sá ad
þad var Eingill Drottins, sagdi hann: ó Drott-
inn! Drottinn! nú þared eg hefi sjed Eingil
Drottins augliti til auglitis (þá hlýt eg ad deya);
23. en Drottinn sagdi til hans: fridur sé med
þér! vertu óhræddur, ekki skaltu deya! 24.
Þá bygdi Gídeon Drottni altari, og kalladi

V. 5. Dóm. 7, 12. V. 10. 2 Kóng. 17, 35. og s. fr. V. 14. 2 Mós. 3, 10. 1 Sam. 12, 11. V. 16. 2 Mós. 3, 12. 4 Mós. 14, 15. V. 18. Dóm. 13, 15. V. 21. 3 Mós. 9, 24. V. 23. Dan. 10, 18. Lúk. 24. 36. Jóh. 20, 19. 21. 26. 2 Mós. 19, 21. Dóm 13, 22. V. 24. Abí-Esrítum, nl. ættmønnum Gídeons. Sjá v. 11.

þad: Drottinn (er) fridur, og þad stendur enn til þessa dags í Ofra, sem tilheyrir Abí-Esrítum. 25. Og þad skédi þá sömu nóttu, ad Drottinn sagdi til hans: tak einn uxa af (nautum) födur þíns, og annan uxa 7 vetra gamlann, og brjót nidur þad Baals altari, sem tilheyrir födur þínum, og högg þú upp lundinn, sem þar er hjá! 26. og uppbygg Drottni Gudi þínum eitt altari efst uppá kletti þessum, á hagkvæmum stad; tak svo annan uxann og offra brennifórn, med trjánum úr lundinum, sem þú skalt upphöggva. 27. Þá tók Gídeon 10 menn af þénurum sínum og gjördi svo sem Drottinn hafdi honum sagt. En af því hann þordi ekki, vegna síns födurs húss og vegna fólksins í stadnum, ad gjöra þetta (á degi) þá gjördi hann þad um nætur tíma. 28. Þegar stadarins fólk reis árla upp um morguninn, þá, sjá! Baals altari var nidurbrotid, og lundurinn, sem þar var hjá, upphöggvinn, og sá annar uxinn offradur til brennifórnar á altarinu, sem uppbygt hafdi verid. 29. Þá sagdi hvör til annars: hvör hefir gjört þetta? En sem þeir höfdu ransakad þad og eptirgrenslast, sögdu þeir: Gídeon sonur Jóas hefir verk þetta (unnid). 30. Þá sagdi fólkid í stadnum til Jóas: sel þinn son framm, og hann skal deya, af því hann hefir nidurbrotid Baals altari og upphöggvid lundinn þar hjá. 31. Þá sagdi Jóas til allra þeirra, sem hjá honum stódu: viljid þér taka upp mál fyrir Baal? viljid þér bjarga honum? Hvör sem reisir þrætur hans vegna, sá skal deya á þessum morgni. 32. Sé hann Gud, þá sæki hann sjálfur sín vegna, þann sem hefir nidurbrotid hans altari. Og nefndi hann á þeim sama degi Jerúb Baal; og sagdi: sæki Baal, þann, sem hefir hans altari nidurbrotid.

33. Nú sem allir Midianítar og Amalekítar og fólk austanad höfdu samansafnast, og voru komnir yfirum (Jórdan) og höfdu sett tjaldbúdir sínar í Jesreels dal; 34. þá fór Guds Andi í Gídeon, og hann lét blása í básúnur, og kalladi þá Abí-Esríta til ad fylgja sér. 35. Þar fyrir utan sendi hann bod til allrar Manassis (ættkvíslar) og kvaddi þá sér til fylgdar, líka sendi hann bod til Aser og Sebúlon og Naftalí og þeir komu til móts vid þá. 36. Og Gídeon sagdi til Guds: ef þú vilt frelsa Israel, fyrir mína hönd, svo sem þú hefir sagt, 37. sjá! þá vil eg leggja gjæru eina í gardinn; komi nú dögg einúngis á gjæruna, en jördin sé þurr allt í kríng, þá vil eg (þaraf) merkja, ad þú vilt frelsa Israel, fyrir mína hönd, eins og þú hefir sagt. 38. Og þad skédi svo, ad um morgun þess næsta dags, þegar hann hafdi árla uppstadid, vatt hann döggina úr gjærunni og fylti skál med vatni. 39. Og Gídeon mælti vid Gud: upptendrist ekki reidi þín móti mér, þó eg tali enn nú einusinni; æ! eg vil ad eins enn nú eitt sinn gjöra tilraun med gjæru þessari: lát nú gjæruna einúngis vera þurra, en jördina alla döggvada. 40. Og Gud gjördi þad svo á þeirri sömu nóttu: ad gjæran einúngis var þurr, en dögg á allri jördunni.

## 7. Kapítuli.

Gídeon sigrar Midianítana.

1. Eptir þetta tók nú Jerúb-Baal, þad er Gídeon, sig árla upp, og allt þad fólk, sem med honum var, og settu herbúdir hjá brunninum

V. 25. 2 Kóng. 11, 18. 23, 12. 15. 5 Mós. 7, 5. 2 Kron. 14, 3. V. 29. Dóm. 15, 6. V. 31. 1 Kóng. 18, 21. 27. V. 32. Nefndi hann, nl. son sinn Gideon. Dóm. 7, 1. V. 34. Heb. Guds Andi iklæddist Gideoni. Dóm. 11, 29. 1 Kron. 12, 18. 2 Kron. 24, 20. Jós. 17, 2. V. 35. Vid þá; nl. vid Gideon og menn hans. V. 39. 1 Mós. 18, 30. V. 1. Dóm. 6, 32. 8, 35.

Haród, en herbúdir Midianítanna voru nordan meigin vid þá, hinumeigin hálsins Móre, þar í dalnum. 2. Og Drottinn sagdi til Gídeons: fólkid er ofmargt, sem med þér er, til þess eg vilji géfa Midianítana í þeirra hønd, svo ad Israel hrósi sér ekki móti mér og segi: mín eigin hønd hefir frelsad mig. 3. Þar fyrir láttu úthrópa fyrir fólksins eyrum og segja: hvørr sem óttasleginn er og hræddur, hann snúi til baka og flýti sér frá fjallinu Gílead! svo snéru þá aptur af fólkinu 22 þúsundir, og ad eins 10 þúsundir urdu eptir. 4. Og Drottinn sagdi til Gídeons: enn nú er fólkid ofmargt; leid þá ofantil vatnsins, þar vil eg reyna þá (handa þér) og þad skal ské, ad um hvørn helst eg segi til þín, þessi skal med þér fara, þá skal hinn sami med þér fara; en um hvørn sem eg segi til þín: þessi skal ekki fara med þér, sá sami skal þá ekki fara. 5. Og sem hann hafdi leidt fólkid nidur til vatnsins, sagdi Drottinn til Gídeons: hvør sem nú lepur med túngu sinni af vatninu, eins og hundur lepur, þann skaltu láta fara afsídis, og eins sérhvørn þann, sem fellur á kné til ad drekka. 6. Svo vard þá tala þeirra manna sem lapid høfdu med munninum úr hendi sér, þrjú hundrud manns, en allt hitt af fólkinu hafdi fallid á kné til ad drekka vatnid. 7. Þá sagdi Drottinn til Gídeons: med þeim þrem hundrudum manns sem lapid hafa, vil eg frelsa ydur og géfa Midianítana í þína hønd, en allt hid annad af fólkinu skal fara sinn veg, hvør einn heim til sín. 8. Og sem fólkid hafdi tekid fararkost med sér og svo básúnur sínar, og sem hann hafdi látid alla hina Israelíta fara hvørn til sinna tjaldbúda, þá héldt hann þeim þrjú hundrud mønnum eptir hjá sér; en Midianíta her var þar fyrir nedan hann í dalnum. 9. Og þad skédi á þeirri sømu nóttu, ad Drottinn sagdi til hans: fardu á fætur og gakk nidur til herbúda (Midianítanna) því eg hefi géfid þá í þínar hendur. 10. En ef þú þorir ekki ad fara einn, þá láttu svein þinn Púra fara med þér, til herbúdanna. 11. Sídan fór hann og sveinn hans Púra til þeirrar ytstu radar strídsfólksins, sem þar var í herbúdunum. 12. En Midianítar og Amalekítar og allir austanad komnir (Arabar) høfdu lagst þar í dalnum, svo margir sem eingisprettur, og úlfaldar þeirra voru óteljandi fyrir fjølda sakir, eins og sandur vid sjáfar strønd. 13. Þegar Gídeon var kominn þángad, sjá! þá var einn madur ad segja (ødrum manni) draum, og sagdi: sjá! mig dreymdi draum, mér þókti ein bøkud byggbrauds kaka, velta sér (hér) ad Midianítanna herbúdum, og sem hún kom til (Adal) tjaldsins, laust hún á þad, og varpadi því um koll, svo þad vissi nidur, sem upp átti, og tjaldid lá (flatt). 14. Þá svaradi hinn annar, þad þýdir ekkért annad enn sverd Gídeons þess Israelítiska manns sonar Jóas; Gud hefir géfid Midianítana í hans hønd med øllum þeirra herbúdum. 15. Og þad skédi, þegar Gídeon heyrdi drauminn sagdann, og hans rádníngu, badst hann fyrir, og fór aptur til Israels herbúda, og sagdi: takid ydur upp, því Drottinn hefir géfid Midianítanna herbúdir i ydar hendur. 16. Þá skipti hann þeim þrem hundrad mønnum í þrjá flokka, og hann fékk þeim øllum básúnur í hønd og tómar krúsir, med logandi blisum í. 17. Og sagdi til þeirra: horfid á mig og gjørid eins og eg gjøri; og sjá! þegar eg kém til þess ytsta af herbúdunum, þá gángid allt eins til verks, eins og þér sjáid mig gánga. 18. Og nær eg blæs í básúnuna, og allir þeir sem med

V. 3. 5 Mós. 20, 8. 1 Macc. 3, 56. V. 7. 1 Sam. 14, 6. 2 Kron. 14, 11. V. 11. 1 Sam. 26, 7. V. 12. Dóm. 6, 5. Jós. 11, 4. Opb. 20, 8. V. 13. 1 Mós. 40, 9. 16. V. 14. Es. 9, 4. V. 17. Dóm. 9, 48.

mér eru, svo skulud þér undir eins blása í
básúnur allt í kríngum herbúdirnar, og segja:
(hér er) Drottinn og Gídeon. 19. Svo
kom Gídeon og þeir 100 menn, sem med hon-
um voru til þess ytsta af herbúdunum, vid
byrjun mid-(nætur) vaktarinnar, rétt í því
þeir ad eins voru búnir ad setja vaktina, og
sídan blésu þeir í básúnurnar og sundurbrutu
krúsirnar, sem þeir báru í høndum sér. 20.
Og þá blésu undir eins allir þrír flokkarnir í
básúnur, sundurbrutu krúsirnar, en héldu á
blisunum í sinni vinstri hendi, en á básúnun-
um í þeirri hægri, blésu í þær og hrópudu:
sverd Drottins og Gídeons! 21. Og þeir stódu
hvør á sínum stad um kríng herbúdirnar, þá
tók allur her (Midianítanna) á rás, æpti og
flýdi. 22. Og þessi þrjú hundrud manns
þeyttu sínar básúnur, og Drottinn lét sérhvørs
sverd snúast móti ødrum um allar herbúdirnar;
svo ad herinn flúdi til Bet-Sitta, til Serera
allt til bakkans Abel-Mehóla hjá Tabbat (vid
Jórdan). 23. Nú voru samankalladir Ísra-
elsmenn frá Naftali og Aser og frá allri Man-
assis (ættkvísl) til þess þeir veita skyldu Midian-
ítum eptirfør. 24. Líka sendi Gídeon bod
um allt Efraims fjall, og lét segja þeim, kom-
id nidur, til ad fara á móti Midianítunum, og
sitjid fyrir þeim vid vatnsføllin allt til Bet-
bara, og vid Jórdan, (ad þeir komist ei yfir-
um). Svo voru samankalladir allir menn frá
Efraim, og þeir sátu fyrir þeim vid øll vøtn
allt til Betbara og líka vid Jórdan. 25. Og
þeir tóku til fánga tvo Midianítanna høfd-
íngja, Oreb og Seeb, og drápu Oreb á klett-
inum Oreb, en Seeb drápu þeir í vínpressunni
Seeb; og þeir eltu Midianítana og fluttu høf-
udin af Oreb og Seeb til Gídeon, frá Jórd-
an, hinumeigin Ad.

## 8. Kápítuli.

*Gídeons afreksverk, Synir, Daudi.*

1. Og þeir menn af Efraim søgdu til hans:
hvar fyrir breyttir þú svo vid oss, ad þú kall-
adir oss ekki, þegar þú fórst ad strída móti
Midianítunum; og þeir þráttudu ákaflega vid
hann. 2. Og hann sagdi þá til þeirra: hvad
hefi eg nú gjørt, sem jafnist vid ydar verk?
er ekki (einn) vínkvistur Efraims betri enn (øll)
vínyrkja Abíesers? 3. Gud gaf høfdíngja Midi-
anítanna Oreb og Seeb í ydar hønd, og hvørn-
ig mundi eg hafa orkad því, sem þér gjørdud?
Og sem hann hafdi þetta mælt, sefadist reidi
þeirra móti honum.

4. Þegar Gídeon var nú ad Jórdan kom-
inn, fór hann yfir hana og þeir þrjú hundrud
menn med honum, sem þó voru þreyttir ordnir,
og eltu (óvinina). 5. Og hann sagdi til fólks-
ins í Súkkot: æ! gésid fólkinu, sem fylgir mér
(nokkud) af braudi, því þad er þreytt ordid,
þar eg er ad elta Seba og Salmúna, Kónga
Midianítanna. 6. En sérhvør høfdíngjanna
í Súkot svaradi: eru þá Seba og Salmúna
allareidu svo í þínum høndum, ad vér þurfum
ad géfa her þínum braud? 7. Þá sagdi
Gídeon: nú vel, þegar Drottinn géfur þá Seba
og Salmúna í mínar hendur, þá skal eg
sundur tæta hold ydar med þyrnum af eydi-
mørku og med þistlum. 8. Og sídan fór hann
þadan upp til Pnúel og taladi til fólksins þar
á sama hátt, en þad svaradi honum allt eins
og fólkid í Súkot hafdi svarad. 9. Hvørs
vegna hann sagdi þá til fólksins í Pnúel: þegar

---

V. 19. Þeir ad eins og s. fr. Nl. Midianítarnir. V. 22. 1 Sam. 14, 20. 2 Kron. 20, 22. 23. V. 24. Jób. 1, 28. V. 25. Sálm. 83, 12. Es. 10, 26. V. 1. Dóm. 12, 1. 15, 11. V. 2. Er ekki vínkvistur og s. fr. meiningin er: eru ekki ydar afreks verk miklu meiri enn min? Dóm. 6, 34. Es. 17, 2. V. 5. 1 Mós. 33, 17. V. 6. Eru þá Seba og s. fr. Þetta voru hædnis ord. 1 Sam. 25, 11. V. 8. 1 Kóng. 12, 25.

eg kém til baka aptur með friði, þá skal eg niðurbrjóta kastala (turn) þenna.

10. En þeir Seba og Salmúna vóru í Karkór, og her þeirra með þeim, hérum fimtán þúsundir, sem að eins vóru eptir af øllum hernum austanað, en hundrað og tuttugu þúsundir vopnfærra manna vóru fallnar. 11. Síðan fór Gídeon upp veginn til þeirra, sem í tjøldum búa, austan til við Nóba og Jógbea, og hann lagði her (Midíanítanna) að velli, þá hann ekki ugði að sér. 12. En Seba og Salmúna flýðu og hann elti þá, og hertók (þessa) tvo Kónga Midíanítanna, en skaut skélk í bríngu øllum þeirra her. 13. Eptir það, þegar Gídeon sonur Jóas kom til baka frá orrustu þessari, og það fyrir sólar uppkomu, 14. þá tók hann til fánga einn úngan mann frá þeim Súkótisku til að adspyrja hann; og hann skrifaði upp fyrir hann (með nafni) alla høfðíngjana í Súkót og øldúngana þar, sem vóru sjøtíu og sjø manns að tølu. 15. Og sem hann kom til fólksins í Súkót sagði hann: sjáið! hér eru nú þeir Seba og Salmúna, fyrir hvørja þér hæddud mig segjandi: eru Seba og Salmúna allareiðu svo fallnir í þínar hendur, að vér þurfum að géfa þínum mønnum, sem þreyttir eru, brauð? 16. Og hann tók øldúngana úr borginni, og þyrna og þistla af eyðimørkinni, og kéndi fólkinu í Súkót með þeim að skilja (til hvørs þeir unnið høfðu). 17. Síðan braut hann niður kastalann í Pnúel, en drap mennina í borginni. 18. Og hann sagði til Seba og Salmúna: hvørnig vóru þeir menn uppá að sjá, sem þið drápuð í Tabor? þeir svøruðu: einsog þú, svo vóru þeir; þeir báru (þvílíkan) svip sem þeir væru Kóngssynir. 19. Þá sagði hann: þeir hafa verið mínir bræður, synir móður minnar. (Svo sannarlega sem) Drottinn lifir, ef þið hefðuð géfið þeim líf, skyldi eg ekki hafa slegið yður í hel. Og hann sagði til Jeters síns frumgétna sonar: stattu upp og sláðu þá í hel. 20. En pilturinn dróg ekki sitt sverð úr slíðrum; því hann varð hræddur, þar hann enn nú var únglingur. 21. En Seba og Salmúna søgðu: stattu (sjálfur) upp og vinn á oss, því eins og maðurinn er, eins er orka hans; stóð þá Gídeon upp, og sló Seba og Salmúna í hel, og tók speingur þær, er vóru um hálsana á þeirra úlføldum.

22. Þá sagði hvør maður í Ísrael til Gídeons: drottna þú yfir oss, bæði þú og þinn sonur og svo þinn sonarsonur, því þú hefir frelsað oss af Midíanítanna hendi. 23. En Gídeon svaraði þeim: ekki vil eg drottna yfir yður, og minn sonur skal ei heldur yfir yður drottna, Drottinn (Jehóvah) hann skal drottna yfir yður! 24. Og hann sagði (enn framar) til þeirra: einnar bónar vil eg biðja yður: géfið mér hvør einn ennisspaung*) af sínu herfángi, því þeir høfðu gullhløð um enni haft**), af því þeir vóru Ísmaelítar. Þeir svøruðu: það viljum vér fúslega gjøra, 25. og þeir breiddu dúk út, og køstuðu á hann, hvør um sig, ennisspaung (hríng) af herfángi sínu. 26. En þýngd þessara gullegu ennis-spánga (hrínga), er hann beiðst hafði, vóru þúsund og sjø hundruð (siklar) gulls fyrir utan þær spennur og hálskéðjur og purpuraklæði, sem Midíanítanna Kóngar høfðu borið, og fyrir utan kéðjur þær, sem vóru á hálsum úlfalda þeirra. 27. Og Gídeon gjørði úr þessu høkulbílæti og setti í sína

V. 11. 4 Mós. 32, 35. 42. 1 Sam. 30, 16. V. 17. 1 Kóng. 12, 25. V. 13. Og það fyrir sólar uppkomu. Aðrir, yfir hæðirnar hjá Heres. V. 21. Sálm. 83, 12. Es. 3, 19. V. 24. *) Aðr: hring, ótilgreint hvørt heldur eyrna eður nasahring. **) Aðr: borið hringa. V. 27. Framdi afguðadýrkun hebr. drýgðu hór, sjá Dóm. 2, 17. 17, 5. 2 Mós. 28, 4. 6. 5 Mós. 7, 16.

borg í Ofra, og allur Ísrael framdi afguda-
dýrkan þar med, og það vard Gídeon og hans
húsi til snøru. 28. Þannig máttu nú Midían-
ítar lúta í lægra haldi fyrir Ísraelsbørnum,
og þeir gátu aldrei uppreisn feingid eptir þetta,
og landid hafdi um Gídeons daga, frid í fjøru-
tíu ár. 29. En Jerúb-Baal, sonur Jóas, fór
burt og bjó í sínu húsi.

30. Og Gídeon átti sjøtíu syni, sem hann
var fadir ad, því hann hafdi margar konur.
31. Og hjákona hans, sem hann átti í Sikem,
fæddi honum og son, og honum gaf hann nafn-
id: Abimelek. 32. En Gídeon sonur Jóas
deydi í gódri elli, og var grafinn í grøf síns
fødurs Jóas Abí-Esríta, sem var í Ofra.

33. Og þad skédi þegar Gídeon var daud-
ur, þá féllu Ísraelsbørn frá (Gudi) og frømdu
afgudadýrkun eptir Baalím, og gjørdu sér Baal-
Berit ad (af-) Gudi. 34. Og Ísraelsbørn
minntust ekki Drottins síns Guds, sem frelsad
hafdi þá úr allra þeirra óvina høndum allt
um kríng. 35. Og ei heldur sýndu þeir misk-
unsemi vid Jerúb-Baals, þad er Gídeons hús,
fyrir allt þad góda er hann hafdi audsýnt Ísrael.

## 9. Kapítuli.

Abimelek Gídeonsson drepur brædur sína, eydileggur Sikem, fær ill afdrif.

1. En Abímelek Jerúb-Baals sonur gékk til
Sikem, til módurbrædra sinna, og talaði vid
þá og alla sína ættíngja af síns módur-føddurs
húsi, og sagdi: 2. Eg bid, ad þér talid (þetta)
fyrir allra manna eyrum í Sikem: hvørt mun
ydur betra ad 70 menn, allir Jerúb-Baals syn-
ir, drottni yfir ydur, enn ad einn madur drottni
yfir ydur? minnist þess og, ad eg er ydar hold
og bein. 3. Þá tøludu hans módurbrædur
øll þessi ord um hann fyrir eyrum manna í
Sikem, og þeirra hjørtu hneigdust til Abíme-
leks, því þeir søgdu: hann er vort skyldmenni
(bródir). 4. Og þeir gáfu honum 70 sikla
silfurs, úr húsi Baal-Berits; og Abímelek
leigdi fyrir þetta óvandaða landhlaupara, sem
fylgdu honum. 5. Og hann fór í síns fød-
urs hús í Ofra, og drap sína brædur, sonu
Jerúb-Baals, 70 manns á einum steini; en
Jótam, ýngsti sonur Jerúb-Baals, vard eptir,
því hann hafdi falist.

6. En allir menn í Sikem, og Millos hús,
søfnudust nú saman, fóru og hylltu Abimelek til
Kóngs hjá lundi þeim, er stendur hjá Sikem.
7. En sem Jótam hafdi frá þessu sagt verid,
fór hann uppá hædstu nýpu fjallsins Grísim,
hóf upp sína røddu og hrópadi, og sagdi til
þeirra: heyrid mig þér menn í Sikem, svo Gud
heyri ydur! 8. Einusinni fóru trén ad taka
konúng yfir sig, og þau søgdu til vidsmjørs
trésins: vertu vor Kóngur! 9. Vidsmjørs tréd
svaradi: skal eg yfirgéfa minn feitleika, med
hvørjum heidur skal veitast bædi Gudi og mønn-
um, og fara til ad sveima uppi yfir trjánum.
10. Þá søgdu trén til fíkjutrésins: kom þú og
vertú vor Kóngur! 11. en fíkjutréd svaradi
þeim: skal eg yfirgéfa minn sætleika og minn
hinn góda ávøxt og fara til ad sveima uppi
yfir trjánum? 12. Sídan søgdu trén til vín-
trésins: kom þú og vertú vor Kóngur! 13. en
víntréd sagdi til þeirra: skyldi eg yfirgéfa minn

---

V. 28. Dóm. 5, 31. V. 30. Hann var fadir ad. hebr. komnir af hans lendum. 2 Kóng. 10, 1. V. 31. Dóm. 9, 1. V. 32. Dóm. 6, 11. V. 33. Dóm. 12, 11. 9, 4. V. 35. Dóm. 9, 5. 19. V. 1. Dóm. 8, 31. V. 2. Hold og bein, þad er: ydar ættingi og landsmadur. V. 4. 70 silfurs; hvørt hér eiga ad skiljast 70 pund edur siklar er óvist, eins og 1 Mós. 20, 16. Landhlaupara sjá 2 Kron. 13, 7. V. 5. 2 Kóng. 10, 7. 11, 3. V. 6. 2 Sam. 5, 9. 1 Mós. 12, 6. 35, 4. Jós. 24, 25. 26. V. 7. Jós. 8, 33. V. 9. Heidur sk. v. af því Olía var brúkud bædi vid fórnir, og smurningar til embætta. Sveima hebr. ad reika (um kring, til umsjónar sem stjórnari). V. 13. Sálm. 104, 15.

vøkva, sem gledur bædi Gud og menn og fara ad sveima yfir trjánum? 14. Loksins søgdu øll trén til þyrnibúskfins: kom þú og vertú vor Kóngur! 15. En þyrnibúskurinn svaradi trjánum: ef þad er alvara ydar ad vilja hylla mig til Kóngs yfir ydur, þá komid og skýlid ydur undir mínum skugga, en ef þid viljid þad ekki, þá skal eldur koma út af þyrnibúskinum og eyda Sedrus trjánum á Líbanon. 16. Nú ef þér hafid sýnt trúskap og hreinskilni í því ad gjøra Abímelek ad Kóngi, og ef þér hafid (med því) gjørt vel vid Jerúb-Baal og hans hús, og breytt vid hann, eptir sem hann hafdi af ydur tilunnid; 17. þared fadir minn hádi stríd ydar vegna, og setti líf sitt í hættu til ad frelsa ydur frá Midianítanna hendi; 18. en þér hafid (þó) í dag reist ydur upp á móti míns Fødurs húsi, og sleigid í hel sonu hans, sjøtíu ad tølu, á einum steini, og hafid gjørt Abímelek, hans ambáttar son ad Kóngi yfir fólkinu í Sikem, af því hann er ydar skyldmenni (bródir); 19. og ef þér hafid (segi eg med þessu) breytt med trúskap og hreinskilni vid Jerúb-Baal og vid hans hús á þessum degi, þá látid ydur þykja vænt um Abímelek, og honum þyki vænt um ydur; 20. en ef ekki er svo, þá gángi eldur út frá Abímelek og eydileggi fólkid í Sikem og húsid Millo! gángi þar ogsvo eldur út frá fólkinu í Sikem og frá húsi Millo, óg eydileggi Abímelek. 21. Eptir þetta flúdi Jótam, já hann flúdi (í snarrædi), og fór til Beer, og bjó þar á laun vid bródur sinn Abímelek.

22. En Abímelek drottnadi yfir Ísrael í þrjú ár. 23. Sídan sendi Gud sundurlyndis anda millum Abímeleks og (innbyggjaranna) í Sikem; því þeir í Sikem rufu trygdir vid Abímelek; 24. til þess ad þad ofbeldi, sem hann sýnt hafdi þeim sjøtíu sonum Jerúb-Baals, og þeirra blód skyldi (til hefndar) koma og falla yfir Abímelek þeirra bródur, sem hafdi þá í hel sleigid, og yfir þá í Sikem, sem høfdu veitt honum styrk til ad slá í hel brædur sína. 25. Þessvegna settu Sikemítar launsátur hædst á fjøllum uppi, sem ræna skyldi alla, sem færu þar farinn veg hjá þeim, og þetta var Abímelek til kynna géfid. 26. Þá kom Gaal Ebeds son, og brædur hans, og þeir fóru til Síkem, og innbyggjararnir í Síkem reiddu sig á hann. 27. Og þeir fóru út á mørkina, og søfnudu berjum af sínum víngvidi, pressudu þau og høfdu dansleik; sídan fóru þeir í hús afguda sinna, átu þar og drukku og bannsúngu Abímelek. 28. Og Gaal Ebeds son sagdi: hvør er Abímelek, og hvør er Síkem, ad vér skulum hans þjónar vera? er hann ekki Jerúb-Baals sonur, og Sebúl hans høfudsmadur? þjónid heldur mønnum Hemors fødur Síkems! og því skulum vér þjóna honum? 29. Eg vildi ad fólk þetta vildi géfa sig undir mína hønd, þá skyldi eg (sannlega) burtrýma Abímelek. Þetta var sídan sagt Abímelek, og ad hann skyldi auka herlid sitt og draga út. 30. Því þegar Sebúl høfudsmadur stadarins, hafdi heyrt Gaals Ebeds sonar ord, fyltist hann reidi, og sendi bod á laun til Abímeleks, 31. og lét segja honum: sjá! Gaal Ebeds son og brædur hans eru komnir til Síkem, og uppæsa stadinn á móti þér. 32. Tak þig þess vegna upp um nótt, ásamt því fólki, sem hjá þér er, og ligg í launsátri á mørkinni. 33. Og ad morgni tak þig árdegis upp um sólar uppkomu, og fall yfir stadinn; og sídan þegar hann, og þad fólk, sem med honum er, fer út á móti þér, þá gjørdu vid þad, eptir sem þú orkar. 34. Og Abímelek fór af stad um næturtíma, og allt þad fólk, sem med honum var, og settist í launsátur um Síkem í

V. 14. 2 Kóng. 14, 9. V. 15. Sálm. 58, 10. Ez. 19, 14. V. 17. Dóm. 5, 18. 12, 3. V. 21. 4 Mós. 21, 16. V. 24. Matth. 23, 35. 27, 28. V. 25. Jós. 8, 2. V. 28. 1 Mós. 34, 2. V. 33. 1 Sam. 10, 7.

fjórum fylkíngum. 35. Og Gaal sonur Ebeds
fór út, og stód fyrir dyrum stadar portsíns; en
Abímelek reis upp og þad fólk, sem med hon-
um var úr launsátrinu. 36. En sem Gaal sá
fólkid, sagdi hann til Sebúl: sjá! þar kémur
fólk ofan af fjalla hædunum; þá sagdi Sebúl
til hans: þér sýnist fjallaskugginn vera fólk. 37.
Og Gaal taladi þad sama í annad sinn og
sagdi: sjá! þar kémur fólk midt nidur af land-
inu; og einn hópur kémur frá vegi þeim, sem
liggur ad spásagnara lundinum. 38. Þá sagdi
Sebúl til hans: hvar er nú munnur þinn med
hvørjum þú sagdir: hvør er Abímelek, ad vér
séum hans þjónar? er ekki þetta fólk þad sem
þú forsmádir? láttu nú sjá, fardu út og berstú
vid þad. 39. Svo fór þá Gaal út sem fyrir-
lidi þeirra Sikemíta, og bardist vid Abímelek.
40. Og Abímelek sókti (svo hardt) á hann, ad
hann flýdi fyrir honum, og þar féll fjøldi manns
í hel sleginn, allt ad portsíns dyrum. 41. Abí-
melek sat sídan í Arúma; en Sebúl útrak Gaal
og hans brædur, svo þeir feingu ekki ad búa í
Sikem. 42. Sídan skédi þad næsta dag ad
fólkid fór út á mørkina, og þad var gésid Abí-
melek til kynna. 43. Þá tók hann lid sitt og
skipti því í þrjá hópa og sat í launsátri á mørk-
inni, og þegar hann sá ad fólkid gékk út af
borginni, tók hann sig upp á móti því, og rak
þad á flótta. 44. Því Abímelek, og sá af
hópunum, sem med honum var, ysirféll þad, og
setti sig fyrir dyrnar á stadarins porti; en hin-
ir hóparnir tveir ysirféllu alla þá sem útá
mørkinni vóru og (unnu) þá.

45. Þá herjadi Abímelek uppá stadinn, allann
þann sama dag, og inntók hann, og sló í hel
fólkid, sem þar var inni. Sídan braut hann
stadinn nidur í grunn og sádi ysir hann salti.
46. Þegar nú allir þeir menn, sem vóru í Si-
kems kastala, heyrdu þetta, geingu þeir inní
festíngu þá, sem var vid hof gudsíns Berit;
47. en sem þad var tilkynna gésid Abímelek, ad
allir mennirnir úr kastalanum í Sikem hefd usafn-
ast (þángad), 48. þá gékk Abímelek uppá fjall-
id Salmon, hann og allt fólkid sem med hon-
um var; og Abímelek tók egsi í hønd sér, og
hjó eina grein af trjánum, lypti henni upp, og
lagdi á herdar sér, og sagdi til fólksíns, sem
hjá honum var: þad sem þid sáud ad eg gjørdi,
þá flýtid ydur nú og gjørid þad sama. 49.
Þá hjó allt fólkid líka hvør sína grein, fylgdi
Abímelek, og bar vidinn upp ad turninum og
løgdu eld í hann med þessu, svo ad allir menn
í kastalanum Sikem dóu, hérum þúsund kalla
og kvenna. 50. Sídan fór Abímelek til Te-
bes, setti herbúdir umkríng borgina, og tók
hana. 51. En þar var sterkur kastali midt í
stadnum, þángad flýdu allir kallar og konur,
já allt fólkid í stadnum, og læsti eptir sér, og
sídan stigu þeir uppá þakid á kastalanum. 52.
Þá kom Abímelek ad (kastalanum), og herjadi
á hann; og hann gékk nærfeldt inn ad dyrum
kastalans, því hann vildi brenna hann upp
med eldi. 53. En kvinna nokkur kastadi kvarn-
arsteins broti í høfud Abímeleks og sundur-
braut hans hausskél. 54. Þá hrópadi hann
hastarlega til eins úngs manns, sem var hans
skjaldsveinn og sagdi til hans: drag sverd þitt
út, og dreptú mig, svo menn segi ekki um mig:
kona sló hann í hel, og þá lagdi (þessi) sveinn
hans hann í gégn, svo hann deydi. 55. Nú
sem Israelítarnir sáu ad Abímelek var daudur,
gékk hvør einn (í burtu) til síns heimilis.
56. Svo lét þá Gud Abímeleks íllsku koma
aptur ysir hann, fyrir þad hann hafdi svo
breytt vid sinn fødur, þegar hann sló í hel
sína sjøtíu brædur. 57. Og eins lét Gud alla

V. 43. Dóm. 20, 29. V. 45. Salti; þad var merki fullkomnustu eydileggingar. V. 48. Dóm. 7, 17. V. 53. 2 Sam. 11, 21. V. 54. 1 Sam. 31, 4. V. 56. Dóm. 1, 7. Jer. 50, 29. Op. 18, 6. V. 57. Dóm. 9, 20.

Sikems manna vondsku koma þeim í koll, svo
ad Jótams Jerúb = Baals sonar óbænir hrinu
á þeim.

## 10. Kapituli.

Tóla og Jaír (dómarar); Israelsfólk kémst aptur í
kröggur.

1. Eptir Abímelek uppreis Tóla, sonur Púa,
sonar Dodó, madur af Isaskars = ætt til ad
frelsa Israel. 2. Og hann bjó í Samír á
Efraims fjalli. Hann dæmdi Israel tuttugu
og þrjú ár, deydi sídan og var grafinn í Samír.
3. Eptir hann uppreis Jaír, Gíleadíti, og
dæmdi Israel í tuttugu og tvø ár. 4. Hann
átti þrjátíu sonu, hvørjir = ed ridu á þrjátíu
øsnufolum. Hann átti og þrjátíu stadi, sem
kølludust Jaírs þorp, allt til þessa dags, og
liggja í Gíleads landi. 5. Og Jaír dó, og
var grafinn í Kamon.
6. Israels børn héldu sídan áfram ad gjøra
illt í augliti Drottins og þjónudu Baalím og
Astarot og afgudunum í Syría og í Sídon,
líka Móabs gudum, samt Ammons og Filiste=
anna gudum, en yfirgáfu Drottinn og þjónudu
honum ekki. 7. Þá uppkveiktist reidi Drott=
ins móti Israel, og hann seldi þá undir hend=
ur Filisteanna og Ammons barna. 8. Og þeir
þvíngudu og þjádu Israels børn á því (sama)
ári; já, í átján ár (plágudu þeir) øll Israels
børn, sem voru hinumeigin Jórdanar í landi
Amorítana, sem er í Gílead. 9. Sídan fóru
Ammons børn yfirum Jórdan, til þess ad
strída líka móti Júda og Benjamín og móti
Efraims húsi, svo Israel komst í miklar naudir.
10. Þá hrópudu Israels børn til Drottins,
og søgdu: vér høfum syndgad móti þér, því
vér høfum yfirgéfid vorn Gud og þjónad Baal=
ím. 11. En Drottinn sagdi til Israels barna:
høfdu ekki (fjandmenn ydar) Egyptskir, Am=
orítar, Ammonítar og Filistear; 12. líka
Sídonítar, Amalekítar og Maónítar undirokad
ydur? en sem þér hrópudud til mín, frelsadi
eg ydur af þeirra hendi; 13. og samt hafid
þér nú yfirgéfid mig og þjónad annarlegum
gudum; þess vegna vil eg ekki framar meir
hjálpa ydur; farid nú og hrópid til þeirra
guda, sem þér hafid útvalid ydur; 14. látid
þá frelsa ydur á ydar þjáníngar tíma. Þá
søgdu Israels børn til Drottins: 15. vér hof=
um syndgast, gjør þú vid oss rétt eptir því
sem gott er fyrir þínum augum; en frelsadú
oss, (ad eins) í þetta sinn. 16. Sídan køst=
udu þeir frá sér annarlegum gudum og þjón=
udu Drottni; og þá kénndi hann í brjósti um
Israel, ad hann var svo plágadur. 17. Og
Ammons børn voru samankøllud, og settu her=
búdir sínar í Gílead, en Israels børn søfnudust
saman og settu herbúdir í Mispa. Og høfd=
íngjar fólksins í Gílead søgdu hvør til annars:
18. hvør er sá madur, er fyrstur vill hefja stríd
móti Ammons børnum? hann skal verda høfd=
íngi allra þeirra, sem búa í Gílead.

## 11. Kapituli.

Jepta kollun og heit.

1. En Gíleadítinn Jepta, var ramur ad
afli, en hórkonu sonur, fadir hans var Gílead.
2. En Gíleads ektakvinna fæddi honum børn,
og þá ekta børnin voru vaxin, ráku þau Jepta
út, og søgdu til hans: ei skalt þú arf taka í
vors fødurs húsi, því þú ert sonur annarlegrar
kvinnu. 3. Sídan flýdi Jepta frá brædrum
sínum og bjó í landinu Tóp; þá søfnudust til

V. 3. 4 Mós. 32, 41. V. 4. Dóm. 12, 14. 1 Kron. 2, 22. V. 6. Dóm. 3, 12. 4, 1. 1 Sam. 7, 34. V. 7. Dóm. 2, 14. 3, 8. 4, 2. V. 10. Dóm. 3, 9—15. 4, 3. 4 Mós. 21, 7. V. 13. 5 Mós. 32, 16. 20. 21. Jer. 2, 3. V. 14. 5 Mós. 32, 38. 1 Sam. 12, 21. Jer. 2, 28. V. 15. 1 Sam. 7, 6. 12, 10. V. 16. 1 Mós. 35, 2. 1 Sam. 7, 4. 1 Mós. 6, 6. 4 Mós. 21, 4. V. 18. Dóm. 11, 6. 8. 9. V. 2. 1 Mós. 21, 10. V. 3. 1 Sam. 22, 2. Dóm. 9, 4.

hans landhlauparar, og drógu út med honum. 4. Þá skédi þad, nokkrum tímum sídar, ad Ammons børn herjudu á Israel. 5. Og sem Ammons børn herjudu þannig á Israel, fóru Gíleads øldúngar af stad, ad sækja Jepta í landid Tób. 6. Og þeir søgdu til hans: kom þú og vertú vor fyrirlidi, svo vér fáum barist vid Ammons børn. 7. Jepta svaradi øldúngunum af Gílead: hafid þér ekki (ádur) hatad mig, og rekid mig út af míns fødurs húsi, hvar fyrir komid þér þá nú til mín, þá naudin ad ydur þreyngir? 8. Øldúngarnir af Gílead søgdu þá til Jepta: vegna þess snúum vér nú aptur til þín, ad (vér viljum) þú farir med oss til ad strída á móti Ammons børnum, og ad þú sért vor fyrirlidi, allra sem búa í Gílead. 9. Þá sagdi Jepta til øldúnganna í Gílead: ef þér nú sækid mig aptur, til þess ad berjast móti Ammons børnum, og ef Drottinn géfur þau á mitt vald, mun eg þá vera ydar høfudsmadur. 10. Þá søgdu øldúngarnir af Gílead til Jepta: Drottinn veri heyrnarvottur ad tali voru, ef vér ei gjørum þad sem þú hefir mælt. 11. Svo fór Jepta med Gíleads øldúngum, og fólkid (tók) hann yfir sig til høfdíngja og fyrirlida, og Jepta taladi øll (þessi) sín ord framm fyrir Drottni í Míspa.

12. Þá sendi Jepta bodskap til Konúngs Ammons barna, og lét segja honum: hvad hefi eg vid þig (ad sýsla) þess, ad þú kémur til mín, ad herja á mitt land? 13. Ammons barna Kóngur svaradi sendimønnum Jepta: vegna þess Israel tók undir sig mitt land, þegar þeir fóru úr Egyptalandi, allt frá Arnon inn til Jabok og inntil Jórdan, þá (áskil eg) ad þú géfir mér þad aptur, med fridi. 14. En Jepta sendi ennú aptur bod til Ammons barna Kóngs, og lét segja honum, svo segir Jepta: 15. Israel tók hvørki undir sig land Móabíta né land Ammonsbarna. 16. Því þegar Israelítar fóru frá Egyptalandi, þá ferdudust þeir í gégnum eydimørkina til þess rauda hafs, og komu til Kades. 17. Og Israel sendi bod til Edomíta Kóngs og sagdi: leyf mér, eg bid þig, ad ferdast um land þitt! en Edomíta Kóngur vildi ekki heyra þad. Israel sendi og svo til Móabíta Kóngs, og hann vildi þad ekki heldur (leyfa). Svo héldt Israel kyrru fyrir í Kades. 18. Sídan fór Israel áfram í eydimørkinni, og ferdadist í kríngum land þeirra Edomíta og Móabíta, og kom austan ad Móabítanna landi, og setti tjaldbúdir sínar hinumeigin vid Arnon, og kom ekki á Móabítanna landamerki, því Arnon er landamerki þeirra. 19. Og Israel sendi bod til Síhon Amoríta Kóngs, (sem sat) í Hesbon, og lét segja honum: eg bid þig, leyf oss ad ferdast gégnum land þitt, þángad sem eg skal stadar nema. 20. En Síhon trúdi ekki Israel til ad ferdast um land sitt, heldur safnadi hann ad sér øllu sínu fólki, setti herbúdir í Jasa og bardist vid Israel. 21. Þá gaf Drottinn, Israels Gud, Síhon og allt hans fólk í Israels hendur, og hann lagdi þá ad velli. Svo tók Israel allt land Amorítanna, sem bjuggu í því sama landi. 22. Og þannig tóku þeir undir sig allt land (øll landamerki) Amorítanna til eignar, frá Arnon til Jabók, og frá eydimørkinni allt til Jórdan. 23. Svo hefir þá Drottinn Israels Gud útrekid Amorítana frá sínu fólki Israel, og þú vilt vera þeirra eigandi? 24. Mundir þú ekki meiga eiga þad land, sem Kamos þinn Gud lætur þig eignast? Svoleidis viljum vér og eiga allt þad land, úr hvørju Drottinn vor Gud hefir frá oss útrekid (þess fyrri eigendur). 25. Eda meinar þú, ad þú sért miklu

V. 7. 1 Mós. 26, 27. V. 8. Dóm. 10, 18. V. 13. 4 Mós. 21, 24. V. 17. 4 Mós. 20, 14. og s. fr: V. 19. 4 Mós. 21, 21. 5 Mós. 2, 26. V. 24. 4 Mós. 21, 29. 1 Kóng. 11, 7. 2 Kóng. 23, 13. V. 25.

betri, enn Balak Sippors son Kóngur Móa-
bítanna? hefir hann nokkurntíma þráttad vid
Jsrael, eda nokkurntíma átt stríd vid hann?
26. Nú hefir Jsrael búid í Hesbon og undir-
liggjandi þorpum, í Aróer og þar til heyrandi
býlum, og í øllum þeim borgum sem liggja
hjá Arnon í þrjú hundrud ár, hvar fyrir hafid
þér ekki (allan) þann tíma tekid aptur þetta
(land)? 27. Sannarlega hefi eg alls ekkért
giørt á þinn hluta, og þó breytir þú nú svo
illa vid mig, ad þú herjar á mig. Drottinn sá
(ædsti) dómari, dæmi á þessum tíma (í dag)
millum Jsraels- og Ammons-barna! 28. En
Ammons barna Kóngur gaf ekki gaum ordsend-
íng Jepta.

29. Þá kom Drottins Andi yfir Jepta, og
hann fór (med her) um Gílead og Manasse,
sídan til Mispa, (sem liggur) í Gílead, og frá
Mispa í Gílead fór hann yfir til Ammonítanna.
30. Þá vann Jepta Drottni eitt heit og sagdi:
ef þú algjørlega géfur nú þá Ammoníta í mín-
ar hendur, 31. þá skal þad ské, ad þad sem
(fyrst) geingur út af míns húss dyrum á móti
mér, þegar eg kém aptur med fridi frá Ammons-
børnum, þá skal þad (annad hvørt) verda Drott-
ins (eign) edur eg vil offra því til brennifórn-
ar. 32. Sídan fór Jepta móti Ammonítum,
til ad heya orrustu vid þá, og Drottinn gaf þá
í hans hendur. 33. Og hann lagdi þá ad
velli frá Aróer, allt til þess komid er til Minnít,
og vann tuttugu borgir, allt til Abelkeramím
(víngarda sléttlendisins) í mjøg stórum bardaga.
Svo hlutu Ammonítar ad lúta í lægra haldi
fyrir Jsraelítum.

34. Nú sem Jepta kom til húss síns í Mispa,
þá gékk dóttir hans út í móti honum med bumb-
um og dansi, og hún var einbirni, því hann
átti (annars) hvørki son né dóttur. 35. En
sem hann sá hana, reif hann sín klædi og
sagdi: æ, mín dóttir! þú hefir (nú) øldúngis
gjørt út af vid mig, og þú ert ein medal þeirra
sem hrellir mig, því eg upplauk mínum munni
fyrir Drottni, og eg gét ekki tekid þad aptur.
36. En hún svaradi honum: Fadir minn! haf-
ir þú upplokid þínum munni fyrir Drottni, þá
gjørdu vid mig allt einsog af þínum munni
framgengid er, fyrst Drottinn, hefir géfid þér
fullkomna hefnd yfir óvinum þínum, þeim Am-
monítum. 37. Þó sagdi hún til fødur síns:
gjørdu þad þó fyrir mig, géfdu mér tveggja
mánada frest, til þess eg meigi gánga og fara
hér á fjøllin til ad gráta meydóm minn, eg og
mínar stallsystur. 38. Hann sagdi: far þú
af stad, og hann gaf henni tveggja mánada
frest. Sídan fór hún í burtu med stallsystrum
sínum til ad gráta meydóm sinn á fjøllunum.
39. En sem þeir tveir mánudir vóru úti, kom
hún til baka til fødur síns, og hann gjørdi svo
vid hana einsog hann hafdi heitid. 40. Hún
kénndi aldrei kallmanns, en þad vard ad sid-
vana í Jsrael, ad Jsraels dætur skyldu árlega
fara til ad eiga samtal vid (vegsama) dóttur
Jepta af Gílead, fjóra daga á ári hvørju.

## 12. Kapítuli.

*Jepta sigrar Efraimíta. Dómararnir Ebsan, Elom og Abdon.*

1. Og allir Efraimítar þustu saman og fóru
af stad nordur eptir og søgdu til Jepta: hvar
fyrir fórst þú ad strída vid Ammons børn og
kvaddir oss ekki þér til fylgdar? vér skulum
brenna hús þitt og þig í (bjørtu) báli. 2.

Betri sért; þad er: hafir betri rétt til þins tilkalls, enn og s. fr. 4 Mós. 22, 2. V. 27. 1 Mós. 31, 53. 1 Sam. 24, 16. V. 29. Dóm. 6, 34. V. 30. 1 Mós. 28, 20. 4 Mós. 21, 2. V. 31. Annadhvort — edur, sýndst þessi merking af hebr. og — og vid adra stadi. t. d. Ex. 12, 5. 21, 15. 16. Devt. 17, 9 sbr. v. 12. 2 Sam. 2, 19. sbr. v. 21. Ordskv. 30, 8. V. 34. 1 Sam. 18, 6. V. 35. 1 Mós. 37, 34. Job. 1, 20. og s. fr. 5 Mós. 23, 21. Préd. 5, 3. V. 1. Dóm. 8, 1. 14, 15.

En Jepta sagdi til þeirra: eg og mitt hús áttum í stórri þráttan vid Ammons børn, og þegar ar eg leitadi lids hjá ydur, vildud þér ekki frelsa mig af þeirra hendi. 3. Nú þegar eg sá, ad þér vildud ei hjálpa mér, setti eg líf mitt í hættu, og fór á móti Ammons børnum, og Drottinn gaf þá í mína hønd; hvørsvegna komid þér þá nú í dag upp til mín, til ad berjast móti mér? 4. Og Jepta dró saman alla sína menn í Gílead, og bardist vid Efraimíta, og Gíleads menn sigrudu Efraimíta, því þeir Efraimítar høfdu sagt: þér erud stroknir frá Efraim. Gílead er milli Efraim og Manasse (lands). 5. Og Gíleadítar settust um alla ferjustadi á Jórdan fyrir Efraim, svo ad ef nokkur þeirra af Efraim, sem undansluppu, sagdi: eg vil komast yfirum, þá søgdu mennirnir af Gílead til hans: ertú Efraimíti? ef hann þá svaradi: nei! 6. þá søgdu þeir til hans: lát sjá! segdu: Schibbóleth; og ef hann sagdi: Sibboleth, og gat svoleidis ekki talad þad rétt út, þá gripu þeir hann, og drápu hjá Jórdanar ferjustødum; svo þar féllu á sama tíma af Efraim, fjørutíu og tvær þúsundir.

7. Jepta var dómari yfir Ísrael í sex ár; og Jepta af Gílead andadist, og var grafinn í (einum af) stødunum í Gílead.

8. Eptir hann var Ebsan frá Betlehem dómari yfir Ísrael. 9. Hann átti þrjátíu sonu og þrjátíu dætur, sem hann gifti frá sér, og hann tók þrjátíu (teingda) dætur handa sonum sínum og var Ísraels dómari í sjø ár. 10. Hann deydi sídan, og var grafinn í Betlehem.

11. Eptir hann var dómari yfir Ísrael Sebúlonítinn Elon, hvør ed dæmdi Ísrael í tíu ár; 12. sídan deydi hann, og var grafinn í Ajalón, í Sebúlons landi.

13. Eptir hann var dómari yfir Ísrael Abdon, einn Píreatoníti, son Hillels. 14. Hann átti fjørutíu sonu og þrjátíu sona sonu, sem ridu á sjøtíu asnafolum, og hann var dómari yfir Ísrael í átta ár. Og (þessi) Abdon, sonur Hillels, Píreatonítinn deydi; og hann var grafinn í Píreaton í Efraims landi, á fjalli Amalekítanna.

## 13. Kapítuli.

Samson fædist.

1. Og Ísraels børn héldu áfram ad gjøra þad sem íllt var í augliti Drottins, og Drottinn seldi þá í Filisteanna hønd í fjørutíu ár.

2. En þar var madur nokkur af Sóra af Dans ætt, hvørs nafn var Manóa; og ektakvinna hans var óbyrja, svo hún átti ekki barn. 3. Og Eingill Drottins birtist kvinnunni og sagdi til hennar: sjá! þú ert óbyrja og fædir ekki, en nú skalt þú þúngud verda og fæda son. 4. En vara þú þig vel, ad þú drekkir ekki vín, né annan áfeingann drykk, og ad þú etir ekkért óhreint! 5. Því þú skalt ólétt verda og son fæda á hvørs høfud einginn rakknífur skal koma, því ad þessi sveinn skal verda Gudi helgadur allt frá módurlífi, og hann skal byrja ad frelsa Ísrael af Filisteanna hendi. 6. Þá fór kvinnan og sagdi til manns síns, svoleidis: þar kom Guds madur nokkur til mín, og hans yfirbragd var sem Guds Eingils, mjøg (óttalegt), svo eg spurdi hann ekki hvadan hann kæmi, og ei heldur sagdi hann mér nafn sitt. 7. En hann sagdi til mín: þú munt ólétt verda, og son fæda; þú skalt ekki vín drekka

V. 5. Gíleadítar, nl. sem lagst høfdu millum síns eigin lands og Efraim, hjá Jórdan, til ad hindra, ad þeir Efraimítar, sem yfirum høfdu farid móti þeim í Gíleadslandi í Manasses ættkvísl, kjæmust ei til baka yfirum Jórdan, til sinna heimkynna. V. 6. 2 Kóng. 10, 7. Jer. 39, 6. V. 14. Dóm. 10, 4. V. 1. Dóm. 3, 12. 8, 33. 10, 6. V. 2. Jós. 19, 41. V. 3. Lúk. 1, 13. 31. V. 4. 4 Mós. 6, 3. 3 Mós. 10, 9. V. 5. 1 Mós. 16, 11. Lúk. 1, 31. 4 Mós. 6, 5. 1 Sam. 1, 11. V. 7. 4 Mós. 6, 3.

né áfeingann drykk og ekkért óhreint eta, því
sveinninn skal vera Gudi helgadur í frá móð-
urlífi til daudadags. 8. Þá bad Manóa Drott-
inn og sagdi: Heyr mig Herra! æ lát þann
Guds mann koma til vor aptur, sem þú út-
sendir, svo hann kénni okkur hvørnig vid skul-
um fara med sveininn, sem fædast skal. 9. Og
Gud heyrdi raustu Manóa, svo Eingill Guds
kom á ný til kvinnunnar, þegar hún sat úti á
mørkinni; en madur hennar Manóa var þá ekki
hjá henni. 10. Þá flýtti kvinnan sér og hljóp
til manns síns, og kunngjørdi honum segjandi:
sá madur hefir byrst mér, sem kom til mín um
daginn. 11. Þá spratt Manóa upp og gékk
eptir konu sinni, og hann kom til mannsins og
sagdi til hans: ertú madurinn, sem taladir vid kon-
una? og hinn svaradi: já, eg er. 12. Og Manóa
sagdi: þegar þad rætist, sem þú hefir sagt,
hvørja framferd og ydju skal þá þessi sveinn
hafa? 13. Drottins Eingill sagdi þá til
Manóa: kvinnan skal taka sér vara vid øllu
því sem eg hefi sagt henni. 14. Hún skal á
eingu því bergja, sem af vínvidi kémur, ekki
drekka vín né áfeingann drykk, og ekkért óhreint
eta; allt þad, sem eg hefi bodid henni, skal hún
halda. 15. Og Manóa sagdi til Eingils
Drottins: leyf okkur ad halda þér (nokkurn
tíma) vid viljum þá matbúa handa þér eitt
hafurkid. 16. En Drottins Eingill sagdi til
Manóa: þó þú fáir haldid mér (hér um tíma)
þá et eg (samt) ekki af þínum mat; en ef þú
vilt gjøra brennifórn, þá máttu offra henni
Drottni, því Manóa vissi ekki ad þad var
Eingill Drottins. 17. Þá sagdi Manóa til
Eingils Drottins: hvørt er nafn þitt, svo vér
meigum vegsama þig, nær þad er fram komid,
sem þú hefir sagt? 18. Eingill Drottins svar-
adi honum: því spyr þú svo um mitt nafn,
því þad er undarlegt. 19. Þá tók Manóa
hafurkid eitt og matoffur, og hann offradi því
Drottni á (einum) kletti; en hann (Eingill-
inn) gjørdi undur, svo Manóa og hans kvinna
horfdu á. 20. Því þegar logann lagdi upp
af altarinu í himinin, þá fór Eingill Drottins
upp í loganum af altarinu; þegar Manóa og
kona hans sáu þad, féllu þau fram á sínar á-
sjónur til jardar. 21. Og Eingill Drottins
byrtist ekki framar fyrir Manóa og kvinnu
hans; þá skildi Manóa ad þetta var Eingill
Drottins. 22. Og hann sagdi til sinnar
kvinnu: vissulega munum vid deya, þared vid
høfum sjed Gud. 23. En kona hans svaradi
honum: ef Drottinn hefdi viljad deyda okkur,
þá hefdi hann hvørki þeigid brennifórnina né
matoffrid af okkar høndum. Hann hefdi ekki
heldur látid okkur sjá allt þetta, og á þessum
tíma ekki unnt okkur ad heyra þvílíka hluti.
24. Og kvinnan fæddi son, og kalladi nafn
hans Samson; og sveinninn vóx upp, og
Drottinn blessadi hann. 25. Og Andi Drott-
ins tók ad knýa hann (til afreksverka) í her-
búdum Dans, (sem láu) millum Sora og
Estahól.

## 14. Kápítuli.

Samsons vidureign vid ljónid. Brúdkaup, og gáta.

1. Og Samson gékk nidur til Timna og
sá þar kvinnu nokkra af Filisteanna dætrum.
2. Og sem hann kom til baka, gaf hann þetta
fødur sínum og módur sinni til kynna, og mælti:
eg hefi sjed kvinnu í Timna af Filisteanna dætr-
um; takid hana því handa mér til eiginkonu.
3. En fadir hans og módir søgdu til hans:

---

V. 13. Eingillinn svaradi ekki beint uppá spurningu Manóa, þar hann sýndist hnýsast vilja um barnsins forløg. V. 14. 4 Mós. 6, 3. Ez. 44, 21. Lúk. 1, 15. V. 15. Dóm. 6, 18. V. 17. 1 Mós. 32, 29. V. 18. Es. 9, 6. mitt nafn er undarlegt eda ógripanlegt. V. 22. Dóm. 6, 22. 23. 2 Mós. 19, 21. 33, 20. V. 25. Matth. 4, 1. Lúk. 4, 1. Dóm. 18, 8. 11. V. 2. 1 Mós. 34, 4. V. 3. 2 Mós. 34, 16.

er þá eingin kvinna medal dætra brædra þinna, og hjá øllu þínu fólki, ad þú vilt fara þángad til ad taka þér eiginkvinnu, af Filisteum, sem eru óumskornir? Samson svaradi fødur sínum: lát mig fá þessa, því hún þókknast mínum augum. 4. En fadir hans og módir vissu ekki ad þetta var af Drottni, og ad hann leitadi tækifæris vid Filisteana; því ad Filistear drottnudu í þann tíma yfir Israel. 5. Þá gékk Samson og fadir hans og módir hans (nidur) til Timna, og sem þau komu ad Timnats víngørdum, sjá! þá kom úngt ljón øskrandi á móti honum. 6. Og Guds Andi kom yfir hann, svo hann sundursleit þad, eins og þá madur sundurslítur hafurkid, og hafdi þó alls ekkért í hendi sér; og eigi sagdi hann fødur sínum né módur sinni frá því, hvad hann hafdi adhafst. 7. En sem hann kom ofan, taladi hann vid kvinnuna, og hún þókknadist Samsons augum. 8. Og ad nokkrum døgum lidnum, kom hann aptur til ad giftast henni. Og hann gékk af veginum til ad sjá ljónshræid, og sjá! þá var bíflugna bú í ljónshræinu og hunáng. 9. Og hann tók þad sér í hendur, héldt svo áfram og át (þar af) fór til fødur síns og módur sinnar og gaf þeim þar af, svo þau átu líka, en hann sagdi þeim (þó) ekki frá, ad hann hefdi tekid hunángid af ljónshræinu. 10. Og sem fadir hans kom nidur til kvinnunnar, þá gjørdi Samson þar veitslu, því sá var háttur úngra manna. 11. Og sem þeir sáu hann, gáfu þeir honum þrjátíu lagsbrædur, sem hjá honum skyldu vera. 12. En Samson sagdi til þeirra: eg vil bera upp fyrir ydur gátu eina, og verdi svo, ad þér gétid rádid hana á þessum sjø veitsludøgum, þá skal eg géfa ydur þrjátíu skyrtur og þrjátíu hátídar-klædi. 13. En ef þér gétid ekki rádid hana, þá skulud þér géfa mér þrjátíu skyrtur og þrjátíu hátídar-klædi. Þeir svørudu honum: ber þú upp gátu þína, og lát oss heyra hana. 14. Og hann sagdi til þeirra: „matur gékk út af etanda, og sætleiki út af þeim sterka". Og þeir gátu ekki rádid þessa gátu í þrjá daga. 15. En á sjøunda degi søgdu þeir vid kvinnu Samsons: lokka þú bónda þinn til ad segja oss gátu þessa, ella skulum vér brenna þig og þíns fødurs hús í bjørtu báli; hafid þid gjørt oss heimbod til ad féfletta oss? er ekki svo? 16. Þá grét Samsons kvinna fyrir honum og sagdi: þú hatar mig, en elskar ekki, þar þú hefir borid gátu upp fyrir børnum míns fólks og ekki sagt mér rádníngu hennar; hann svaradi henni: sjá! eg hefi ekki sagt fødur mínum né módur minni hana, og hví skyldi eg þá segja þér hana? 17. Og hún grét fyrir honum þá sjø daga, sem veitslan stód yfir, og á þeim sjøunda degi sagdi hann henni rádnínguna, því hún gékk svo fast á hann; og sídan sagdi hún børnum síns fólks hana. 18. Þá søgdu bæarmenn til hans á sjøunda degi ádur enn sól settist: hvad er sætara enn hunáng? og hvad er sterkara enn ljón? Þá sagdi Samson til þeirra: ef þér hefdud ekki erjad med minni kvígu, mundud þér ei hafa rádid mína gátu. 19. Þá kom Andi Drottins yfir hann, svo hann fór ofan til Askelon og dráp þrjátíu menn af þeim, tók þeirra klædi, og gaf þeim til hátída-klædnadar, sem rádid høfdu gátu hans, og hann vard ákaflega reidur, og fór upp til síns fødurs húss. 20. En Samsons kvinna var gift einum hans stall-brædra, sem verid høfdu hjá honum.

V. 4. Dóm. 13, 1. V. 6. Dóm. 6, 34. 15, 14. V. 7. v. 3. V. 12. 1 Mós. 45, 22. V. 13. Hátída-klædi: eptir textanum: klædi til umskipta. V. 14. Sterka: gétur og svo útlagst: grimma, sem ei á sidur vid. V. 15. Dóm 16, 5. 12, 1. V. 17. Dóm. 16, 16. 17. V. 18. Dóm. 13, 25. V. 20. Dóm. 15, 2.

## 15. Kapítuli.

Samson hefnir sín á Filisteum.

1. Og þad skédi eptir nokkra daga á hveiti-kornskurdartímanum, ad Samson fór ad vitja konu sinnar, og hafdi med sér kidlíng; en sem hann sagdi: eg vil gánga í herbergid til konu minnar, þá vildi fadir hennar ekki leyfa honum (ad koma) þar inn, 2. og sagdi: eg ætladi þú mundir henni reidur ordinn, og því gifti eg hana stallbródur þínum, en hún á adra ýngri systur, sem er frídari enn hún, lát hana vera konu (þína) í stad hinnar. 3. Þá sagdi Samson til þeirra: í þetta sinn er eg saklausari enn Filistearnir, þó eg vinni þeim skada. 4. Svo fór Samson þadan og veiddi þrjú hundrud refa, og hann tók sér eldskíd, snéri einum hala móti ødrum, og batt svo eldskíd millum hvørra tveggja hala. 5. Sídan kveikti hann eld í skídunum og slepti svo refunum lausum inn á korn (land) Filisteanna, og brendi upp bædi bindini þeirra og svo þad standanda korn, líka svo víngarda þeirra og vidsmjørstré. 6. Þá søgdu Filistear: hvør hefir þetta gjørt? þeim var svarad: Samson dótturmadur mannsins í Tímna, fyrir þad ad þessi tók ektakvinnu hans, og gaf hana hans stallbródur. Svo fóru Filistear upp þángad og brendu hana og fødur hennar í (bjørtu) báli. 7. En Samson sagdi til þeirra: jafnvel þó þér þetta gjørt hafid, þá vil eg samt sem ádur hefna mín á ydur, og hætta svo. 8. Og hann sló þá hardlega á leggi og lær *). Sídan fór hann þadan, og settist ad í einum hellir í Etam.

9. Þá fóru Filistear upp eptir, og settu herbúdir (til ad strída) í Júda, og dreifdu sér út í Lekí. 10. Og mennirnir í Júda søgdu: því erud þér híngad komnir (til ad strída) móti oss? en þeir søgdu: vér erum híngad komnir til ad binda Samson, og til ad gjøra vid hann eins og hann hefir vid oss gjørt. 11. Eptir þad fóru þrjár þúsundir manna af Júda nidur til hellirsins í Etam og søgdu til Samsons: veitstú ekki ad Filistear drottna yfir oss? því hefir þú þá svo vid oss breytt? hann svaradi þeim: eins og þeir gjørdu vid mig, svo hefi eg gjørt vid þá. 12. Og þeir søgdu til hans, vér erum híngad komnir til ad binda þig, og ad selja þig Filisteum í hendur. Og Samson sagdi til þeirra: vinnid mér þá þann eid, ad þér eigi skulud vinna á mér. 13. Þeir svørudu honum og søgdu: einganveginn (skulum vér vinna á þér) vér viljum adeins binda þig, og géfa þig svo í þeirra hønd, en øldúngis ekki skulum vér slá þig í hel. Sídan bundu þeir hann med tveimur reipum nýum, og fluttu hann burt frá klettinum! 14. En sem hann kom til Lekí, komu Filistear móti honum med fagnadar ópi. Þá kom andi Drottins yfir hann, svo reipin sem vóru um armleggi hans urdu sem þrædir í eldi brunnir, og fjøturin sundurslitnudu af hans høndum. 15. Og hann fann nýann asnakjálka, útrétti sína hønd, tók hann, og sló med honum þúsund manna. 16. Þá sagdi Samson: med Asnakjálka (hefi eg) valkost, já tvo valkésti (hladid); med asnakjálka hefi eg slegid þúsund manna. 17. Og sem hann hafdi talid endad, varpadi hann kjálkanum úr hendi sér, og hann kalladi þann stad Ramat-Lekí. 18. En af því hann var sárlega þyrstur, hrópadi hann til Drottins og sagdi: þú hefir þessa stóru frelsun géfid fyrir hønd þíns þénara; en nú hlýt eg ad deya af þorsta, og falla í óumskorinna

---

V. 2. Dóm. 14, 20. V. 6. Dóm. 6, 29. 14, 15. V. 7. Gjørt hafid, nl. þad sem maklegt var í sjálfu sér, þá vil eg samt, og s. fr. V. 8. *) Adr: sló þá med fótleggnum á lærin, (eda á hrigginn fyrir ofan lærin) og gjørdi þeim stóran áverka. V. 11. Dóm. 13, 1. 14, 4, 1 Mós. 20, 9. Dóm. 8, 1. Vid oss breytt? nl. ad æsa Filisteana upp á móti oss. V. 14. Dóm. 11, 29. 14, 6. 16, 9. 12. V. 18. 1 Sam. 31, 4.

manna hendur! 19. Þá klauf Guð jaxlinn í kjálkanum *) og vatn spratt þar upp, svo hann drakk; þá kom andi hans (til hans) aptur, svo hann fékk lífi haldið, þarfyrir kalladi hann hans nafn: ákallarans brunn, sem er enn í Leki, 20. og Samson dæmdi Ísrael, um Filisteanna daga, í tuttugu ár.

## 16. Kapítuli.

Samsons fall, hefnd og daudi.

1. Og Samson fór til Gasa, hvar hann leit eina kvinnu sem var Skjækja, og lagdi lag sitt vid hana. 2. Þá var sagt bæarmønnum í Gasa ad Samson væri kominn þángad og þeir umkríngdu hann og létu sitja um hann alla nóttina í stadar portinu, en høfdu þó hljódt um sig alla nóttina segjandi: í døgun á morgun, skulum vér slá hann í hel. 3. Samson svaf sídan til midrar nætur, en um midnætti fór hann á fætur, tók hurdirnar á stadarportinu, med bádum dyrastólpunum, lypti þeim upp med slaglokunni og lagdi á herdar sér, og bar þær efst uppá fjallsgnýpuna gégnt Hebron.

4. Eptir þetta lagdi hann ást á eina kvinnu hjá læknum Sórek, sú nefndist Dalíla. 5. Til hennar komu høfdíngjar Filisteanna og søgdu vid hana: lokka þú hann og komstu eptir, af hvørju hann hefir sitt mikla afl, og med hvørju móti vér fáum nokkru orkad móti honum, þá ætlum vér ad binda hann og plága; en vér skulum géfa þér (til þess) hvør um sig þúsund og hundrad silfur (penínga). 6. Og Dalila sagdi til Samsonar: seigdu mér, kjæri! af hvørju hefir þú þitt mikla afl og med hvørju verdur þú bundinn, svo menn géti rádid vid þig? 7. Samson svaradi henni, ef menn binda mig med sjø nýum streingjum, sem ei eru enn nú þurrir ordnir, þá yrdi eg linur og einsog hvør (annar) madur. 8. Þá fluttu Filisteanna høfdíngjar upp til hennar sjø nýa hampstreingi, sem ei vóru þurkadir, og hún batt hann med þeim. 9. En hún hafdi menn í leyni, þar í herberginu, hjá sér, og þá sagdi hún til hans: Filistear yfir þig Samson! *) þá rikti hann í sundur streingjunum, sem hørtigill verdur slitinn, þá hann kénnir elds, og ei vard komist fyrir afl hans.

10. Þá sagdi Dalíla til Samsons: sjá! þú hefir gábbad mig, og logid ad mér, æ segdu mér nú, med hvørju þú verdur bundinn? 11. en hann svaradi henni: ef þeir binda mig fast med nýum reipum, sem til eingrar vinnu hafa verid brúkud, þá verd eg linur (máttþrota) sem hvør annar madur. 12. Þá tók Dalíla ný reipi, og batt hann med þeim, og sagdi til hans: Filistear yfir þig Samson — en hún hafdi menn á laun í herberginu — og þá sleit hann þau af høndum sér, sem þrád. 13. Dalíla sagdi þá til hans: enn þá hefir þú gabbad mig og ad mér logid, æ láttu mig nú fá ad vita, med hvørju þú verdur bundinn. Þá svaradi hann henni: ef þú vefur mína sjø høfudhárs lokka um vefjar rifinn *). 14. Svo festi hún þá vid med nagla og sagdi til hans: Filistear yfir þig Samson; þá vaknadi hann af sínum svefni, og svipti í burtu (med sér í hárinu) vefjar naglanum, ásamt med rifnum (vefnum). 15. Þá sagdi hún til hans: hvørnig gétur þú sagt ad þú elskir mig, þar þú ekki ert einlægur vid mig? nú hefir þú þrisvarsinnum dreigid mig á tálar, og ekki látid í ljósi fyrir mér, hvar af þú ert svo sterkur. 16.

V. 19. 1 Sam. 30, 12. *) Adr: þá opnadi Gud tannholid sem er í kjálkanum. Adr: þá opnadi Gud tannholuna sem er í Leki. Adr: þá opnadi Gud dæld í Leki. V. 20. Filisteanna daga; það er: medan Filistear høfdu yfirdrottnun yfir Ísrael, því þeir høfdu hana altaf medan Samson lifdi. V. 1. Jós. 15, 47. V. 5. Dóm. 14, 15. 17, 2. 8, 26. V. 9. Dóm. 15, 14. *) Yfir þig, þ. e. ætla ad drepa þig, sbr. 2 Sam. 23, 8. V. 13. *) Adr. ef þú fléttar mína sjø høfudhárs-lokka vid vefinn. V. 15. Ekki einlægur vid mig. Hebr. þitt hjarta er ekki med mér.

Og sem hún naudadi svo á honum alla daga
med ordum sínum og þvíngadi hann mikillega,
þá mæddist sála hans (um sídir) allt til dauda.
17. Og þá lét hann henni í ljósi allt sitt hjarta,
og sagdi til hennar: aldrei hefir rakknífur kom-
id á mitt høfud, því eg er Gudi helgadur ífrá
minnar módurlífi. Væri mér nú rakad, þá
hvirfi minn styrkur frá mér, og eg yrdi mátt-
vana einsog hvør annar madur. 18. Þegar
Dalíla sá nú ad hann hafdi látid henni allt
sitt hjarta í ljósi, sendi hún, og lét kalla á
høfdíngja Filisteanna og segja (þeim): komid
enn nú í þetta sinn til mín, því hann hefir
mér í ljósi látid allt sitt hjarta; þá komu høfd-
íngjar Filisteanna til hennar, og báru silfrid
med sér; 19. og sem hún hafdi svæft (Sam-
son) í skauti sínu, kalladi hún mann til sín,
og lét raka hans sjø høfud hár-lokka. Síd-
an tók hún ad þjá hann, en þá var honum
horfinn allur hans styrkur. 20. Þá sagdi
hún: Filistear yfir þig Samson! þá vaknadi
hann af sínum svefni, og hugsadi: eg kémst
burt, eins og optsinnis ádur, og slít mig laus-
ann (frá þeim), en hann vissi ekki ad Drott-
inn var vikinn frá honum. 21. Nú gripu
Filistear hann og stúngu úr honum augun, og
fluttu hann til Gasa, bundu hann med tveim-
ur koparvidjum, og létu hann draga þar kvern
í myrkvastofu *). 22. Og høfudhár hans
tóku ad vaxa aptur, eins og þau høfdu verid
þá afrøkud vóru. 23. En þá søfnudust høfdíng-
jar Filisteanna saman, til ad færa Gudi sín-
um Dagón stórar fórnir, og ad gjøra sig
glada, því þeir søgdu: vor Gud hefir géfid
vorn óvin Samson í vorar hendur. 24. Og
sem fólkid sá hann, lofadi þad sinn Gud, því
þad sagdi: vor Gud hefir géfid vorn óvin oss
í hendur; hann sem eydilagt hafdi land vort
og drepid nidur mikinn fjølda af oss. 25. Og
sem þeir vóru nú hjartanlega gladir af þessu,
søgdu þeir: látid sækja Samson til þess hann
leiki fyrir oss! þá var Samson sóktur í fánga-
húsid og hann lék fyrir augum þeirra, og þeir
settu hann þar á millum hússtólpanna. 26.
En Samson sagdi til þess úngmennis, sem leiddi
hann vid hønd sér: lofadu mér ad eins ad
snerta stólpa þá, sem húsid liggur á, svo eg
géti studt mig upp vid þá. 27. Og húsid var
fullt af karlmønnum og konum; þar voru og
allir Filisteanna høfdíngjar (inni) og uppá
þakinu voru um þrjú þúsund menn og kvinnur,
sem horfdu á medan Samson var ad leika.
28. En Samson ákalladi Drottinn og sagdi:
ó Drottinn! Drottinn! æ minnstu mín nú; æ
styrk mig nú, Gud! í þetta sinn, svo eg géti
til fulls hefndt mín á Filisteunum fyrir mín
bædi augu. 29. Og Samson greip utan um
þá tvo midstólpa, á hvørjum húsid allt lá,
og studdi sig vid þá; annar var vid hans
hægri, en hinn vid hans vinstri hønd. 30.
Og Samson sagdi: deyi nú sála mín med þeim
Filisteum! og hann beygdi sig af orku *) (ad
stólpunum) svo ad húsid féll ofan yfir høfd-
íngjana, og ofaná allt fólkid, sem þar inni
var, svo fleiri voru þeir daudu, sem hann drap,
þá hann (sjálfur) dó, enn þeir sem hann hafdi
drepid alla sína lífs tíd. 31. Eptir þad komu
brædur hans nidur og allt hans fødurs hús,
tóku hann upp og fluttu hann þadan, og grófu
hann í millum Sóra og Estahól, í síns føðurs
Manóa grøf. En Samson hafdi verid dómari
yfir Ísrael í 20 ár.

## 17. Kapítuli.

Mika bílæta dýrkun.

1. Þar var madur nokkur af Efraims fjall-

V. 16. Dóm. 14, 17. V. 17. Dóm. 13, 5. V. 21. 2 Kóng. 25, 7. *) Adr: hann mátti mala í húsi fánganna.
V. 23. 1 Sam. 5, 2. V. 25. Dóm. 19, 6. 2 Sam. 6, 5. V. 30. *) Adr: lagdist á af øllum kroptum.
V. 31. Dóm. 13, 25. 15, 20.

bygdum, sá hét Mika. Og hann sagdi vid
módur sína: þeir þúsund og hundrad (peníng-
ar) silfurs, sem hafa verid teknir frá þér, 2.
og fyrir hvørra skuld þú hefir (þjófnum) bøls
bedid, og talad þad fyrir mínum eyrum, sjá!
þetta silfur er nú hjá mér, og eg var sá sem
tók þad; þá sagdi módir hans: blessadur vertú
minn son af Drottni! 3. Svo skiladi hann
módur sínni þeim þúsund og hundrad (peníng-
um) silfurs aptur, og módir hans sagdi: eg
hefi ad øllu leiti helgad Drottni silfur þetta
úr minni hendi, fyrir minn son, til þess ad
úr því skuli gjørast eitt útskorid og steypt bílæti,
og þess vegna fæ eg þér þad nú aptur. 4.
En hann fékk módur sínni silfrid aptur. Þá
tók módir hans tvø hundrud (peninga) silfurs,
og fékk þá gullsmidnum, og hann bjó til úr
þeim eitt útskorid og steypt bílæti, og þad (sama)
var í húsi Mika. 5. Og þessi madur Mika
hafdi eitt guda hús, og hann bjó til høkul
og húsgod, og hann vígdi einn sona sínna,
svo hann vard hans prestur. 6. Á þeim døg-
um var einginn Kóngur í Ísrael, og hvør einn
gjørdi þad sem honum þókti rétt vera. 7. En
þar var úngur madur nokkur frá Betlehem í Júda,
kominn af Júda kynþætti; hann var Levíti, og
dvaldi þar sem framandi (madur). 8. En mad-
ur þessi hafdi farid burtu frá Betlehem í Júda,
til ad lifa (annarsstadar) sem framandi hvar
helst honum færi gjæfist; en sem hann kom
uppá Efraims fjall, til húss Mika, til ad fara
leidar sínnar; 9. þá spurdi Mika hann ad:
hvadan kémur þú? hann svaradi honum: eg
er Levíti frá Betlehem í Júda, farinn til ad
vera sem framandi, hvar helst eg fæ inni. 10.
Þá sagdi Mika til hans: setstu ad hjá mér,
og skaltu verda minn fadir og prestur, eg skal
géfa þér árlega tíu peninga silfurs, líka til-
hlýdilegann klædnad og fædi, og Levítinn fór
inn til hans. 11. Gékk nú Levítinn ad kost-
unum, og rédst til mannsins, sem héldt þenn-
ann únga mann rétt sem hann væri einn af
sonum hans. 12. Og Mika vígdi Levítann,
svo þessi úngi madur vard prestur hans, og
hafdi adsetur í hans húsi. 13. Þá sagdi Mika:
nú veit eg ad Drottinn muni gjøra vel vid mig,
þar ed eg hefi Levíta fyrir prest.

## 18. Kapítuli.

Danítar leidast og til afgudadýrkunar. Vinna Laís.

1. Á þeim døgum var einginn Kóngur í Ís-
rael, og Dans kynkvísl leitadist vid ad fá sér
eign, hvar hún búid gjæti, því henni var inn
til þess dags eingin' eign tilfallin medal Ísra-
els ættkvísla. 2 Og Dans nidjar sendu út af
sínni ættkvísl fimm menn, frá sínum endimørk-
um, hraustmenni, frá Sóra og Estahól, til ad
njósna um landid og skoda þad, og søgdu til
þeirra: farid og skodid landid! og þeir komu
á Efraims fjall ad húsi Mika, og voru þar
um nótt. 3. Þegar þeir voru nú þar í húsi
Mika, tóku þeir eptir málfæri þess únga manns
Levítans, viku þess vegna afsídis og søgdu vid
hann: hvør hefir fært þig híngad? hvad er
þad, sem þú adhefst hér? og hvad fyrir kosti
hefir þú hér? 4. Og hann sagdi þeim á
hvørn hátt ad Mika hefdi breitt vid sig, og
ad hann hefdi leigt sig og gjørt sig ad presti
sínum. 5. Þá søgdu þeir til hans: kjæri,
adspyr þú þá gud, svo vér fáum ad vita, hvørt
þad áform, sem vér høfum fyrir stafni, skal
vel lukkast? Presturinn sagdi þeim: farid í

V. 2. Dóm. 16, 5. Ruth. 3, 10. 1 Sam. 15, 13. V. 4. Es. 40, 19. Spek. 15, 8. V. 5. Edur húsgudi. 1 Mós. 31, 19. Hós. 3, 4. Vígdi hebr. fyllti hans hønd 2 Mós. 28, 41. 29, 24. V. 6. Dóm. 18, 1. 19, 1. 21, 25. V. 8. Lifa sem framandi; eda fá sér dvøl, því hann var úr ødru landsplátsi og af annari kynkvísl. Dóm. 19, 1. V. 1. Dóm. 17, 6. 19, 1. 21, 25. V. 2. Dóm. 13, 25. 17, 1. V. 3. Dóm. 17, 7. nl. ad hann var ekki þar uppalin. V. 5. Áform. heb. vegur.

fridi! 6. áform þad, sem þér hafid fyrir stafni, jedjast Drottni! Sídan fóru þessir fimm menn af stad, og komu til Laís, 7. og sáu ad fólk þad, sem þar bjó, var, eptir Sídóniskra hætti, rólegt og óhult um sig; og þar var einginn í laudinu, (sem gjørdi þeim óskunda), eda sem vald hefdi yfir þeim; og þeir voru í fjarlægd vid þá Sídónisku, og høfdu ekkért saman vid fólk ad sælda. 8. Og (njósnarmennirnir) fóru (til baka) til brædra sinna í Sóra og Estahól; og brædur þeirra søgdu til þeirra: hvad (segid) þér? þeir svørudu: takid ydur upp, og látum oss hefja herfør á móti þeim; 9. því vér høfum sjed landid og ad þad er yfrid gott. Og — hvad; viljid þér hika vid þetta? * verid ekki tregir ad fara ferd þessa, svo þér gétid eignast landid. 10. Nær þér komid þar, munud þér hitta ugglaust fólk, en landid er bædi vídt og breidt, og Gud hefir géfid þad í ydar hendur, já þvílíkt eitt pláts, hvar einginn skortur er á neinu því, sem til er í landinu. 11. Þar eptir ferdudust þadan, af Dans ættkvísl frá Sóra og Estahól, sex hundrud manna, útbúnir med hervopnum. 12. Og þeir fóru upp eptir og settu herbúdir í Kiríat Jearím í Júda; þessvegna kalla menn þann sama stad: Dans herbúdir, allt fram á þennann dag, hvør ed liggur á baka til vid Kiríat Jearím. 13. Svo fóru þeir þadan og yfir á Efraims fjall, og komu til Mika húss. 14. Þá hófu þeir fimm menn, sem út høfdu farid ad skoda landid Laís, máls, og søgdu til sinna brædra: vitid þér ad í þessu húsi er høkull, húsgod, bædi útskorid og steypt bílæti, hugsid þér ydur nú um, hvad þér skulud gjøra! 15. Og þeir viku (sér af vegi) þángad, og komu í hús ens únga manns, (nefnilega) þess Levíta, sem var á heimili Mika, og þeir heilsudu honum kjærlega *). 16. En þau sex hundrud manna, sem útbúin voru med hervopnum, af nidjum Dans, stódu úti fyrir portdyrunum. 17. En þeir fimm menn, sem út høfdu farid ad njósna um landid, fóru upp þángad, og tóku útskorna bílætid, høkulinn, húsgodin, og hid steypta bílæti; en presturinn stód úti fyrir portdyrunum og þau sex hundrud manna, sem útbúin voru med hervopnum. 18. Nú sem hinir voru komnir í hús Mika, og høfdu tekid hid útskorna bílæti, høkulinn, húsgodin, og þad steypta bílæti, þá sagdi presturinn til þeirra: hvad hafist þid ad? 19. En þeir svørudu honum: þegi þú og halt munni þínum *), og far med oss og vertu vor fadir og prestur. Er þér þad betra ad þú sért prestur í eins manns húsi, enn á medal heillrar kynkvíslar og ættar í Israel? 20. Og presturinn lét sér þetta mikid vel lynda, svo hann tók høkulinn, hús godin, og þad útskorna bílæti og komst í før med fólkinu. 21. Og sem þeir (Danítar) snéru vid og fóru þadan, þá sendu þeir undan sér børn og búsmala og annann farángur. 22. En sem þeir voru komnir laugt áleidis, frá húsi Mika, þá voru þeir menn, sem bjuggu í húsum nálægt húsi Mika, samankalladir, og þeir sóktu fast eptir Dans nidjum. 23. Sídan kølludu þeir til þeirra; en Dans nidjar snéru sér vid og søgdu til Mika: hvad vantar þig, ad þú ferd med (slíkan) samandreigin fjølda manns (eptir oss)? 24. Hann svaradi: þér hafid tekid mína gudi, þá sem eg hafdi gjørt (mér) og svo prestinn, og erud farnir burt, hvad hefi eg þá eptir framar? hvørnig kémur þad þá til, ad þér spyrjid: hvad (vantar) þig? 25. Þá søgdu Dans nidjar til hans: lát þú ekki heyrast þína raust hjá oss, svo fólkid, fullt af gremju ekki yfirfalli þig, og þú glatir svo lífi

V. 9. *) Hebr. og þér þeigid. V. 12. Jós. 15, 9. 60. V. 13. Dóm. 17, 1. 18, 2. V. 14. Dóm. 17, 4. 5. V. 15. *) Hebr. ospudu honum fridar. V. 19. *) Hebr. legg hønd þína yfir munn þinn. V. 20. Dóm. 16, 25.

þínu og lífi þíns húss. 26. Dans nidjar fóru svo leidar sinnar; og af því ad Mika sá, ad þeir voru sér yfirsterkari, snéri hann til baka og fór heim aptur. 27. En hinir tóku húsgodin sem Mika hafdi tilbúid, og prest hans, og féllu (óvørum) yfir Laís, yfir rólegt fólk, sem ekki hugdi ad sér, og slóu þad med sverdseggjum, en løgdu eld í borgina. 28. Og þar var einginn sem kæmi þeim til hjálpar, því borgin lá lángt frá Sídon, og þeir høfdu eingin møk vid nokkra þjód, því borgin var í dal nokkrum, sem liggur hjá Bet-Rekob. Svo bygdu þeir (Dans nidjar) borgina upp (aptur), og settust þar ad. 29. Og þeir kølludu nafn borgarinnar Dan, eptir nafni Dans, þeirra forfødurs, sem var Israels sonur; en borgarinnar nafn hafdi þó í øndverdu verid Laís. 30. En Dans nidjar uppreistu hér þad útskorna bílæti handa sér (til dýrkunar); og Jónatan, sonur Gersons, sonar Manassis og nidjar hans voru prestar medal Dans ættkvíslar, uns þeir (herleiddir) fluttu sig af landi burt. 31. Svoleidis settu þeir þad útskorna bílæti, sem Mika hafdi tilbúid, upp, sín á medal, svo leingi sem Guds hús var í Síló.

## 19. Kapítuli.

*Illvirki Gibeíta.*

1. Á þeim døgum, þá einginn Kóngur var í Israel, bjó madur nokkur af Leví ætt sem framandi í Efraims fjallbygdum, sá hinn sami tók sér hjákonu frá Betlehem í Júda, 2. og þessi hjákona var honum ótrú, og fór frá honum í síns fødurs hús í Betlehem í Júda og var þar í 4 mánudi. 3. En bóndi hennar tók sig upp og fór eptir henni, og vildi tala í kjærleika vid hana, til ad fá hana heim (til sín) aptur, og hann hafdi med sér svein sinn og tvo asna. Hún leiddi hann þá inn í hús fødur síns, og sem fadir þessarar úngu konu sá hann, vard hann gladur vid, þegar hann fann hann. 4. Og mágur hans, fadir kvinnunnar, héldt honum, svo hann var hjá honum í þrjá daga, þeir átu (saman) og drukku og voru þar um nóttina. 5. Á þeim fjórda degi risu þau mjøg árla upp, og hann bjó sig til, og vildi fara af stad. Þá sagdi fadir konunnar til mágs síns, hrestu þig nú ádur á litlu braudi, og ad því búnu meigid þid fara af stad. 6. Þá settust þeir nidur, átu bádir til samans og drukku; sídan sagdi fadir kvinnunnar til mannsins: kjæri! gjørdu þad nú fyrir mig, vertu hérna í nótt, og lát þér vera gladt í gédi. 7. En sem madurinn stód (samt) upp, og ætladi ad fara af stad, naudadi mágur hans á honum, þángad til, ad hann var þar um nóttina. 8. En um morguninn, fimta daginn, bjóst hann snemmindis til ferdar, og vildi fara af stad; þá sagdi fadir konunnar (enn nú) til hans: kjæri! hrestu þig nokkud! og þeir dvøldu inn til þess degi halladi, og neyttu bádir saman. 9. En sem madurinn reis upp og vildi fara af stad med hjákonu sinni og sveininum, þá sagdi mágur hans, fadir kvinnunnar, til hans: sjá! degi hallar, og komid er ad kvøldi, kjæri, vertu hér í nótt; senn er ordid mál ad nátta sig; æ vertu í nótt og gjørdu þig gladann. En á morgun skulud þid taka ykkur snemma upp, og fara ykkar veg, svo þú gétir nád heim til þín. 10. En madurinn vildi ekki vera þar um nóttina, heldur bjó sig til og fór af stad, og kom í nánd vid Jebús, (þad er Jerúsalem), og hann hafdi med sér 2 asna klifjada, og hjákona hans fylgdi honum. 11.

V. 28. 2 Sam. 10, 6. 8. V. 31. Jós. 18, 1. V. 30. 1 Kóng. 12, 28. og s. fr. 2 Kóng. 17, 29. V. 31. Jós. 18, 1. V. 1. Framandi sjá Dóm. 17, 8. 18, 1. 19, 18. V. 2. Hós. 9, 1. V. 3. 1 Mós. 34, 3. Hós. 2, 14. V. 9. Jer. 6, 4. Lúk. 24, 29. V. 10. Jós. 15, 8.

Sem þau komu nú til Jebús, var mjøg á
dag lidid, og sveinninn sagdi til húsbónda
síns: æ! komdu og snúdu (hér af vegi) inn í
þenna Jebúsíta stad, og verum hér í nótt. 12.
Þá sagdi húsbóndinn til hans: ekki skulum
vid (af vegi) snúa inn í þennan framandi stad,
sem ekki heyrir Israels børnum til, heldur skul-
um vid fara yfir til Gíbea. 13. Og hann
sagdi til sveins síns: haltú áfram, svo vid get-
um feingid náttstad í ødrum hvørjum stad-
anna Gíbea eda Rama. 14. Svo héldu þeir
áfram sína leid, og sólsett vard fyrir þeim,
þegar þeir voru komnir nálægt Gíbea, sem
heyrdi Benjaminítum til. 15. Og þeir snéru
þángad, til ad géta ordid um nóttina í Gíbea.
En sem (Levítinn) kom þar inn, stadnæmdist
hann á stræti stadarins, því þar var einginn sem
taka vildi móti þeim, til ad ljá þeim hús
hjá sér, til ad vera í um nóttina. 16.
En sjá! þar kom einn gamall madur ad
kvøldi, frá sínni akurvinnu; hann var og frá
Efraímsfjalli, og framandi í Gíbea; en menn-
irnir á þeim stad vóru Benjaminítar. 17. Og
sem hann skygndist um, sá hann þann vegfar-
andi mann þar á borgarstrætinu, þá sagdi hinn
gamli madur: hvørt ætlar þú ad fara, og hvad-
an kémur þú ad? 18. hinn svaradi honum:
vid komum handan frá Betlehem í Júda, og
ætlum til Efraíms fjallshlída, því þar á eg
heima; og eg ferdadist til Betlehem í Júda,
en nú fer eg til Drottins húss, og einginn vill
ljá mér herbergi. 19. Vér høfum þó hey og
fódur nóg handa øsnum vorum og nóg braud
og vín handa mér, þernu þinni og sveini, sem
er í før med þínum þénara (ɔ: mér), svo oss
brestur alls ekkért. 20. Þá svaradi hinn gamli
madur: fridur sé med þér! allt hvad þig kann
ad bresta, skaltu fá hjá mér, ligg adeins ekki
úti í nótt á opnu stræti. 21. Og hann leiddi
hann inn í sitt hús, og gaf øsnum hans fódur;
sídan þvódu þau fætur sína og settust til bords.
22. Nú sem þau vóru glød í hjarta sínu (yf-
ir þessu); sjá! þá umkríngdu menn úr borg-
inni — einhvørjir hinir ørgustu skálkar — hús-
id, børdu á dyr, og søgdu til þess gamla manns,
sem var húsbóndi: leid þann mann út híng-
ad, sem kominn er í þitt hús, ad vér meigum
kénna hans. 23. En madurinn sem var hús-
bóndi í húsinu, gékk út til þeirra og sagdi vid
þá: nei, mínir brædur! gjørid ekki þetta illa
verk, fyrst madur þessi er kominn í mitt hús,
þá fremjid ekki slíka svívirdíngu. 24. Sjá!
hér er mín dóttir, sem enn nú er jómfrú, og
þessa manns hjákona, þær vil eg leida út til
ydar, þær meigid þér vanvyrda (kreinkja), og
gjøra vid þær, hvad ydur gott þykir, en frem-
jid ekki þvílíka svívirdíngu vid þenna mann.
25. En menuirnir vildu ekki hlýda honum; þá
tók madurinn hjákonu sína, og leiddi hana út
til þeirra, og þeir kénndu hennar og misþyrmdu
henni alla þá nóttu, allt til morguns; en sem
af degi lýsti, létu þeir hana fara. 26. Sídan
kom konan aptur snemma morguns, féll nidur
fyrir þess manns hús dyrum, hvar bóndi henn-
ar var inní, og (lá þar) þángad til bjart var
ordid. 27. En sem bóndi hennar fór á fætur
um morgunin, og lauk upp dyrunum á húsinu, og
ætladi ad gánga út, til ad fara afstad, sjá!
þá lá hjákona hans fallin, þar úti fyrir dyr-
unum og hendur hennar á þrepskyldinum. 28.
Hann sagdi þá til hennar: stattú upp! vid
skulum ferdast afstad, en hún svaradi eingu.

---

V. 15. Dóm. 20, 4 og s. fr. 19, 18. V. 17. 1 Mós. 16, 8. Skygndist um; heb. upplypti sínum augum. V. 18. Drottins húss, nl. til Siló, sem var í nágrenni vid heimili hans. V. 19. Þernu þinni — þénara þínum; eru hæverska og audmýktar ord. V. 20. Dóm. 6, 23. 1 Sam. 25, 6. Dan. 10, 18. V. 21. 1 Mós. 18, 4. 19, 2. V. 22. Dóm. 16, 25. 1 Mós. 19, 4. V. 23. 1 Mós. 19, 7. 34, 7. V. 24. 1 Mós. 19, 8.

Þá tók hann hana upp, og lét hana á asnann, bjó sig til, og fór til síns samastadar. 29. En sem hann nú kom heim, tók hann (sér) kníf, lagdi hendur á hjákonu sína, og hlutadi hana med beinum (og øllu) sundur í tólf stykki; og sendi þau út um øll Israels landamerki. 30. En hvør helst sem þad sá, sagdi: þvílíkt hefir ekki skéd edur sjest, ífrá þeim tíma ad Israelsbørn fóru út af Egyptalandi, allt til þessa dags. Hugsid vel um þetta, leggid rád, og segid (hvad ydur sýnist gjøra skuli).

## 20. Kapituli.

Stríd vid Benjaminíta.

1. Sídan løgdu øll Israelsbørn af stad, og fólkid safnadist saman, sem einn madur væri, frá Dan og allt til Bersaba, ásamt af landinu Gílead framfyrir Drottinn í Míspa. 2. Og þeir yppurstu af øllu fólkinu, frá øllum Israels ættkvíslum, komu saman í samkundu Guds fólks, fjøgur hundrud þúsund manns af fótgaungulidi, sem vopnfærir vóru. 3. En Benjamíns nidjar fréttu ad Israelsbørn væru komin til Míspa, og Israelsbørn søgdu: segid frá hvørnig þetta vonda (verk) skédi? 4. Þá svaradi Levítinn, bóndi kvinnu þeirrar, sem drepin var, og sagdi: eg ásamt med hjákonu minni, kom til Gíbea, sem heyrir til Benjamínítum, til ad vera þar um nóttina, 5. þá risu borgarmenn í Gíbea upp á móti mér, umkríngdu mig í húsinu um nóttina, og vildu slá mig í hel; sídan svívyrdtu þeir hjákonu mína, svo hún dó. 6. Eptir þad tók eg mína hjákonu, hjó hana í stykki, og sendi þau út um allt Israels erfdaland; því þeir høfdu framid eitt nídíngsverk og svívirdíngu í Israel. 7. Sjá! þér erud allir saman Israelsbørn, talid nú hvør vid annann, og rádgist um (hvad gjøra skal). 8. Þá tók allt fólkid sig upp, svo sem einn madur væri, og sagdi: einginn af oss skal fara til síns heimilis, og einginn snúa heim aptur í sitt hús, 9. heldur viljum vér nú gánga svoleidis til verks vid Gíbea, (ad vér skulum fara) á móti henni eptir hlutkésti; 10. og vér viljum taka tíu menn af hundradi af øllum Israels ættkvíslum, og hundrad af þúsund og þúsund af tíu þúsundum, til ad (láta þá) safna fararkosti handa fólkinu, svo ad, nær þad kémur til Gíbea í Benjamín, ad þad gjøri þá vid innbyggjarana, einsog (maklegt er fyrir) þad nídíngsverk, sem þeir frømdu í Israel. 11. Sídan søfnudust allir Israels menn saman til borgarinnar, og líka sem einn madur væri, vóru þeir allir samtaka sín á milli. 12. Og Israels ættkvíslir sendu menn til allra Benjamíns kynþátta, og létu segja þeim: Hvad er þad fyrir mannílsku, sem skéd hefir medal ydar? 13. Framseljid nú þá menn, þá illu skálka, í Gíbea, svo vér fáum sleigid þá í hel, til ad burttaka þad vonda frá Israel. En Benjamíns nidjar vildu ekki gaum géfa ordum sinna brædra Israels barna, 14. heldur komu þeir tilsamans úr borgunum, til Gíbea, til ad fara í stríd móti Israelsbørnum. 15. En nidjar Benjamíns, (sem) á þeim degi (komu) frá borgunum, tøldust sex og tuttugu þúsundir manns, sem vopn báru, fyrir utan borgarmenn í Gíbea, sem vóru ad tølu sjø hundrud, einvala hermenn. 16. Og á medal þessa fólks vóru sjø hundrud útvaldra manna, sem ørfhendtir vóru, og gátu allir hæft eitt hár med slaungusteini, svo þeim brást þad ekki.

17. En menn af Israel (fyrir utan þá sem vóru af Benjamín) tøldust fjøgur hundrud þús-

V. 29. Dóm. 20, 6. V. 30. Dóm. 18, 14. 20, 7. V. 2. Dóm. 8, 10. V. 4. Dóm. 19, 15. V. 6. Dóm. 19, 29. Jós. 7, 15. V. 7. Dóm. 19, 30. V. 12. Dóm. 6, 15. V. 13. Dóm. 19, 22. Hós. 9, 9. Skálka hebr. Belials børn. V. 16. Dóm. 3, 15.

undir manns, sem báru vopn, og vóru allir fær=
ir til bardaga. 18. Þeir bjuggu sig þá út, og
fóru upp til Betel (Guds húss), og spurdu Gud
(ráda) og søgdu: hvør skal vera vor fyrirlidi,
og hefja bardaga þenna móti nidjum Benjamíns?
og Drottinn svaradi: Júda skal hann hefja.
19. Svo bjuggu Israels børn sig árla morg=
uns, og settu sínar herbúdir gagnvart Gíbea.
20. Og hvør madur af Israel fór út ad berjast
móti Benjamín, og þeir fylktu lidi sínu til
orustu móti Gíbea. 21. Þá fóru Benjamíns
nidjar út af Gíbea, og á þeim sama degi løgdu
ad velli af Israel, tuttugu og tvær þúsundir
manna. 22. En Israels manna fólk efldi sig
(aptur) og þeir bjuggust enn til bardaga, á þeim
sama stad, sem þeir høfdu fylkt sér hinn fyrra
dag. 23. Og Israels børn fóru upp og grétu
fyrir Drottni allt ad kvøldi; og þeir adspurdu
Drottinn og søgdu: skulum vér framvegis halda
áfram, ad fara í orustu móti nidjum Benjamíns
bródur vors? og Drottinn svaradi: farid á móti
þeim. 24. Og sem Israelsbørn drógu út á
móti Benjamíns nidjum næsta dag, þá fóru
og Benjamínítar út frá Gibea á móti þeim á
sama degi, 25. og þeir løgdu enn þá ad velli,
átján þúsundir manna af Israels børnum, sem
allir voru vopnfærir menn. 26. Eptir þetta
fóru øll Israels børn upp og allt fólkid og
komu til Betel (Guds húss) grétu og vóru þar
fyrir Drottins augliti, og føstudu þann sama dag
allt til kvølds, samt offrudu brennifórnum og
þakkarfórnum fyrir Drottins augliti. 27. Þá
adspurdu Israels børn Drottinn: því (sáttmáls=
ørk Guds var þar á þeim tíma:) 28. og Pin=
eas, sonur Eleasars, sonar Arons, stód fyrir
hans augliti á þeim sama tíma; og hann sagdi
(undir Israels nafni): skal eg optar fara til ad
berjast vid þá Benjamíníta, sem eru børn bród=
ur míns, edur skal eg hætta því? en Drott=
inn svaradi: farid, því á morgun vil eg géfa þá
í þínar hendur. 29. En Israels børn settu
launsátur allt í kríngum Gíbea. 30. Svo tóku
Israels børn sig upp, og fóru þridja daginn
móti Benjamíns nidjum, og bjuggust til bardaga
móti Gíbea, eins og tvisvar (ádur). 31. Þá
fóru og Benjamíns nidjar út á móti fólkinu,
og drógust (ædi lángt) frá borginni, því þeir
tóku til ad slá og drepa nokkra af fólkinu eins
og ádur tvisvarsinnum, úti á þjódgøtum, hvørra
ein liggur til Betel, en ønnur til Gíbea á mørk=
inni; og þad voru um þrjátíu af Israelsmønn=
um (sem þeir felldu). 32. Þá søgdu Benja=
míns nidjar (med sjálfum sér) þeir falla fyrir
vorum augum, eins og ádur fyrri. En Is=
raels børn søgdu: látum oss flýa, svo vér gétum
teigt þá frá stadnum, út á þjódgøturnar. 33.
Sídan tók Israels fólk sig upp, hvør frá sínum
stad, og fylktu lidi sínu í Baal=Tamar, en Israels
launsátur kom fram af sínum stad, (audum) velli
hjá Gíbea *). 34. Og tíu þúsund menn, út=
valdir af øllum Israel, komu rétt gagnvart
Gíbea, og þar vard snarpur bardagi. En þeir
(Benjamínítar) vissu ekki, ad ógjæfan vofdi yf=
ir þeim. 35. Þannig sló Drottinn Benjamín
fyrir Israelsbørnum, svo Israels børn eyddu á
þeim degi tuttugu og fimm þúsundum og hundr=
ad manns af Benjamín, sem allir vóru vopn=
færir. 36. Því þegar Benjamíns nidjar sáu
fall sinna manna, þá gáfu Israels menn þeim
rúm, því þeir treystu uppá þad launsátur, er
þeir høfdu sett hjá Gíbea. 37. En þeir sem í
launsátrinu vóru, flýttu sér ogsvo, og yfirféllu
Gíbea, og þegar þeir komu þar, slóu þeir all=
ann þann stad med sverdseggjum. 38. En
Israels menn høfdu ákvedid vissan tíma vid
þá sem í launsátrinu vóru, nefnilega: nær Isra=

V. 18. Dóm. 1, 1. 2. (V. 23. Fóru upp. nl. til Siló, því þar var þá ørk Drottins). V. 26. Jós. 18, 1. V. 28. Jós. 22, 13. V. 29. Jós. 8, 2. og s. frv. V. 31, Jós. 8, 16. V. 33. Jós. 8, 19. *) úr hellir hja Gíbea.

elsmenn sæu mikinn reik stíga hátt upp af stadnum, þá skyldu þeir snúa sér í bardaganum (móti Benjaminítum út á mørkinni). 39. Þegar nú Benjaminítar høfdu tekid til ad slá og særa Ísraels menn, og høfdu drepid nær þrjátíu af þeim, svo þeir hugsudu þeir mundu liggja fallnir fyrir sér, sem í fyrri bardøgunum; 40. þá rétt í því sama bili, tók reykjarstólpa ad leggja upp af stadnum, og Benjaminítum vard litid til baka, og sjá! ad reikinn og logann lagdi í loft upp af øllum stadnum. 41. Þá snéru og Ísraels menn sér vid (á móti þeim) og Benjaminítar urdu skélkadir, því þeir sáu ad sér var ógjæfa búin. 42. Og þeir snéru sér undan Ísraels mønnum, á veg þann sem veit til eydimerkurinnar, en strídsherinn sókti eptir þeim, og (þar á ofan) eydiløgdu þeir, sem í kríngliggjandi borgum vóru, þá midt á milli sín. 43. Svoleidis umkríngdu þeir þá Benjaminíta og ofsóktu þá, og hvar sem þeir vildu sér hvíld taka, létu þeir undirtroda þá, og þad allt til Gibea móti austri. 44. Og þar féllu af Benjamín átján þúsundir manna, sem allir vóru vopnfærir strídsmenn. 45. Þá snéru þeir sér á flótta til eydimerkur ad Rimmons bjargi; en (Ísraelsmenn) slóu hér og þar, á þjódgøtum nidur af þeim fimm þúsundir manns, og veittu þeim eptirfør allt til Gideom, og þeir slóu (enn nú) af þeim tvær þúsundir; 46. svo ad allir þeir sem á þeim degi féllu af Benjaminítum voru tuttugu og fimm þúsundir, sem allt vóru vopnfærir og duglegir strídsmenn. 47. Sex hundrud manns ad eins snéru vid og flýdu undan til eydimerkur til Rimmons bjargs, og þar vóru þeir í fjóra mánudi. 48. Og Ísraelsmenn snéru til baka til Benjamíns nidja (er eptir vóru) og slóu þá med sverdseggjum, bædi fólkid í borgunum og fénadinn, og allt sem þar inni fannst; og allar þær borgir, sem þar fundust, brendu þeir í bjørtu báli.

## 21. Kapítuli.

Sættst vid Benjamíns ættkvísl.

1. Ísraelsmenn høfdu unnid eid í Mispa, og sagt: einginn af oss skal géfa þeim Benjaminítum sína dóttur til eiginkvinnu. 2. Og fólkid gékk til Betel (Guds húss) og þad var þar fyrir augliti Guds allt til kvølds, og upphóf sínar raddir og grét beisklega, segjandi: 3. O Drottinn! þú Ísraels Gud! því eru þvílík (fádæmi) skén medal Ísraels, ad á þessum degi er einni ættkvísl færra ordid í Ísrael? 4. En deginum eptir stód fólkid árla upp, og bygdi þar eitt altari, og offradi brennifórnum og þakkar fórnum. 5. Þá søgdu Ísraelsbørn: mun nokkur sá, sem ekki hafi híngad uppkomid, þegar allar Ísraels ættkvíslir søfnudust hér saman framfyrir Drottinn? því þá var unninn stór eidur móti þeim, sem ekki kjæmi upp til Drottins í Mispa, og sagt: ad sá skyldi vissulega deya.

6. Og Ísraelsbørn vóru ángurbitin vegna síns bródur Benjamíns, segjandi: í dag er ein Ísraels kynkvísl upphøggvin. 7. Hvørnig skulum vér bera oss ad vid þá sem eptir eru ordnir til ad útvega þeim konfáng? þared vér høfum svarid vid Drottinn, ad vér ekki skulum géfa þeim ektakvinnur af vorum dætrum. 8. Og þeir søgdu: eru nokkrir þeir til af Ísraels ættkvíslum, sem ekki hafi komid framfyrir Drottinn í Mispa? og sjá! þar hafdi einginn komid frá Jabes í Gilead, til hersíns til samkomunnar. 9. Því fólkid var talid, og sjá! þar var þá einginn af innbyggjurum í Jabes í Gilead. 10. Þá sendu þeir þángad af fólkinu tólf þús-

V. 40. Jós. 8, 20. V. 47. Dóm. 21, 13. V. 48. Jós. 8, 24. V. 1. Dóm. 20, 1. V. 2. Jós. 18, 1. Dóm. 20, 26. V. 5. Dóm. 20, 1. V. 8. 1 Sam. 11, 1. 31, 11.

undir strídsmanna, skipudu þeim, og søgdu: far-
id og sláid (í hel) innbyggendurna í Jabes í
Gilead med sverdseggjum, ásamt med þeirra
ektakvinnum og úngbørnum. 11. En svoleidis
skulud þér til verks gánga, allt kallkyns, og
allar þær konur, sem med kallmønnum hafa
lagst, skulud þér afmá. 12. En þeir fundu
hjá innbyggjurunum í Jabes í Gilead, fjøgur
hundrud stúlkur, sem meyar vóru, og ei høfdu
lagst med kallmønnum, og þeir fluttu þær til
herbúdanna í Siló, sem er í landinu Kanaan.

13. Þá sendi allt fólkid af stad, og lét tala
vid þá Benjamíns nidja, sem vóru á Rim-
mons bjargi, og létu bjóda þeim frid. 14.
Svo komu þá Benjamínítar til baka á sama
tíma, og þeir gáfu þeim fyrir eiginkonur, þær
sem þeir høfdu látid lifa eptir af kvennfólkinu
í Jabes í Gilead, en feingu þó ekki (nógu marg-
ar) handa þeim. 15. Þá gjørdist fólkid áng-
urbitid sakir Benjamíníta vegna þess Drottinn
hafdi høggvid skard í Israels ættkvíslir. 16. Og
øldúngar fólksins søgdu: hvad skulum vér gjøra
vid þá sem (enn nú) eru eptir til þess þeir géti
feingid ektakvinnur, þar allt kvennfólk af Ben-
jamínítum er afmád. 17. Þá søgdu þeir:
þeir sem eptir eru af Benjamínítum, skulu halda
eignum sínum, svo ad ein af Israels ættkvísl-
um verdi ekki afmád ad øllu leiti. 18. En
vér meigum ekki géfa þeim vorar dætur fyrir
konur, því Israelsbørn hafa svarid og sagt:
bølvadur veri sá sem géfur Benjamínítum eig-
inkvinnu! 19. Og þeir søgdu: sjá! árlega er
Drottins hátíd haldin í Síló nordur frá Betel
móti austri, á þjódvegi þeim, sem liggur upp
frá Betel til Síkem, fyrir sunnan Lebóna. 20.
Sídan skipudu þeir Benjamíns nidjum og søgdu:
farid og liggid á laun í víngørdunum. 21.
Og þegar þér sjáid ad dætur frá Síló gánga
út til dansleika, þá skulud þér fara út af vín-
gørdunum, og grípi þá hvør einn ydar sér
ektakvinnu af dætrum Sílós og farid sídan
(med þær) í Benjamínsland. 22. En þegar
nú fedur þeirra eda brædur koma ad klaga
þetta fyrir oss, þá skulum vér segja þeim: ver-
id þeim nádugir vor vegna, þar vér tókum ekki
eiginkonu (handa) sérhvørjum (þeirra) í stríd-
inu, og þér hafid ekki (heldur) géfid þeim (dæt-
ur ydar viljugir) því ella mundud þér á þess-
um tíma (vegna eidsins) sekir verda.

23. Benjamíns nidjar gjørdu nú svoleidis,
og tóku (sér) ektakvinnur eptir sínu manntali,
af þeim sem dønsudu, hvørjum þeir ræntu; og
svo fóru þeir burt og komu aptur til síns erfda-
hluta (í landinu) uppbygdu borgir og bjuggu
í þeim. 24. Eptir þetta fóru Israelsbørn
þadan á sama tíma, hvør til sinnar kynkvíslar
og ættar, og þeir ferdudust svo burt, hvør til
síns erfdahluta. 25. Í þær sømu mundir var
einginn Kóngur í Israel, og hvør einn adhafd-
ist þad, sem rétt var fyrir hans (eigin) augum.

V. 11. 4 Mós. 31, 17. V. 12. Jós. 18, 1. V. 13. Dóm. 20, 47. V. 20. 1 Makk. 9, 38. V. 25. Dóm. 17, 6. 18, 1. 19, 1.

# Ruts Bók.



## 1. Kapítuli.

Rut kémur til Betlehem.

1. Og þad skédi, á þeim tímum er dómararnir stýrdu ɪ: Israel, ad hallæri var í landinu. Þá fór madur nokkur frá Betlehem í Júdea burt, til ad taka sér bústad í Móabs landi, hann og hans kona og bádir hans synir. 2. En nafn mannsins var Elímelek, og nafn hans konu Noomi, og nafn hans beggja sona Malon og Kilion, Efratítar frá Betlehem í Júdea, og þeir komu í Móabs land, og stadnæmdust þar. 3. Þá dó Elímelek, madur Noomis, og hún var eptir med bádum sínum sonum. 4. Og þeir tóku sér móabítiskar konur; ønnur hét Orpa en hin Rut, og þeir bjuggu þar, hérumbil 10 ár. 5. Þá dóu líka bádir, Malon og Kilion og konan var (lifdi) ein eptir, báda syninа og mann sinn. 6. Þá bjó hún sig til ferdalags, hún og hennar teingdadætur, og ad fara til baka úr Móabs landi; því hún hafdi frétt í Móabs landi, ad Drottinn hefdi rennt auga til síns fólks, ad géfa því braud. 7. Svo lagdi hún af stad, þadan sem hún hafdi verid, og bádar hennar teingdadætur med henni; og þær fóru leidar sinnar, til þess ad hverfa aptur í Júda land. 8. Þá mælti Noomi vid bádar sínar teingdadætur: farid, snúid vid, hvør fyrir sig í hús ykkar mædra. Drottinn audsýni ykkur gjædsku *) eins og þid hafid sýnt þeim dánu og mér! 9. Drottinn géfi ykkur ad þid finnid hvíld, hvør ykkar fyrir sig, í húsi síns manns *), og hún kysti þær. Þá hófu þær upp sína rødd og grétu. 10. Og þær søgdu vid hana: nei! med þér viljum vid fara heim til þíns fólks! 11. og Noomí mælti: hverfid til baka, mínar dætur! hvørs vegna viljid þér med mér fara? eru enn nú synir í mínu skauti, ad þeir géti ordid ydrir menn? 12. hverfid til baka, mínar dætur, farid! því eg er of gømul, til ad eiga mann. Svo segi eg: já, þó eg hefdi von um ad eignast mann í kvøld, og þó eg fæddi syni, 13. vildud þid þess vegna bída þángad til þeir yrdu fulltída, og inniloka ykkur og einkis manns (konur) verda? Nei, mínar dætur! mig hefir meiri raun heimsókt enn ykkur, því móti mér hefir Drottinn útrétt sína hønd *), 14. og þær upphófu sínar raddir og grétu aptur. Þá kysti Orpa sína teingdamódur, en Rut vard eptir hjá henni. 15. Og Noomí sagdi: sjá! þín mágkona er snúin heim til síns fólks og síns Guds; far þú og svo til baka, á eptir þinni mágkonu! 16. En Rut mælti: þreing þú ekki ad mér ad yfirgéfa þig, ad hverfa til baka frá þér; nei, hvørt sem þú fer, þángad fer eg, og hvar sem þú náttar, þar nátta eg, þitt fólk er mitt fólk, og þinn Gud er minn Gud. 17. Hvar sem þú deyr, þar dey eg, og þar vil eg vera grafin; svo gjøri Drottinn vid mig og enn framar *)! daudinn (einn) skal adskilja þig og mig! 18. Og þá Noomi sá ad hún var einlæg ad fara med sér, hætti hún ad tala vid hana um þad. 19. Svo héldu bádar áfram þángad til þær komu til Betlehem. Og þad skédi þá þær komu til Betlehem, ad allur stadurinn komst í hreifíngu søkum þeirra, og

V. 8. *) Gen. 43, 14. 2 Sam. 2, 6. V. 9. *) Meiningin: ad þid giptist bádar vel. sbr. Kap. 3, 1. V. 13. *) Job. 19, 21. V. 17. *) 1 Sam. 3, 17. 14, 44. 2 Sam. 3, 35.

mennu søgdu: er þetta Noomi? 20. og hún sagdi til þeirra: nefnid mig ekki Noomi (mitt yndi) kallid mig Mara (sú hnuggna) því mikid hefir sá Almáttugi hriggt mig, 21. rík fór eg hédan, tómhendta hefir Drottinn látid mig koma aptur. Því kallid þér mig Noomi, þegar Drottinn vitnar svo á móti mér og sá Almáttugi hrelldi mig? 22. Og svona kom Noomi til baka, og Rut, sú Móabítiska, hennar teingdadóttir med henni, þær komu til baka úr Móabs landi; en þær komu til Betlehem um þad leiti sem bygg-uppskéran byrjar.

## 2. Kapituli.

Rut tínir upp ax á Bóas akri.

1. Og Noomi átti þar náúnga manns síns, audugann mjøg, af ætt Elímeleks, hann hét Bóas. 2. Og Rut sú Móabítiska, mælti vid Noomi: eg vil gjarnan gánga útá akurinn, og tína upp ax eptir þeim, í hvørra augum eg finn nád. Og hún svaradi: far þú, mín dóttir! 3. og hún fór og kom og tíndi á akrinum eptir uppskérumønnunum. Og þad vildi svo til ad akurinn tilheyrdi Bóas sem var af ætt Elímeleks. 4. Og sjá! Bóas kom frá Betlehem og sagdi vid uppskérumennina: Drottinn veri med ydur! og þeir søgdu til hans: Drottinn blessi þig! 5. Og Bóas mælti vid sinn svein sem settur var yfir uppskérumennina: hvørjum tilheyrir þessi þerna *)? 6. og sveinninn svaradi, sem settur var yfir uppskérumennina, og mælti: þad er Móabítisk þerna sem komin er med Noomi til baká úr Móabs landi, 7. og hún sagdi: leif þú mér ad tína upp og safna eptir uppskérumennina hjá kérfaskrúfunum! og hún kom og var (hér) frá því í morgun og þángad til nú; hún hefir híngad til valla komid inn í hús *).

8. Og Bóas mælti vid Rut: heyr þú, mín dóttir! far þú ekki á annan akur til ad tína upp (korn) og far þú ekki hédan og haltu þig til þerna minna, 9. þitt auga sé á þeim akri sem þær uppskéra og gakk þú eptir þeim, sjá! eg hefi sagt fólkinu ad amast ekki vid þér. Og þegar þig þyrstir, þá gakk þú ad drykkjar kønnunni, sem þad drekkur úr. 10. Þá féll hún á sína ásjónu og beigdi sig til jardar, og mælti: hvørsvegna hefi eg nád fundid í þínum augum ad þú lidsínnir mér *), sem er þó útlend! 11. og Bóas svaradi og mælti til hennar: allt hefi eg frétt sem þú hefir gjørt vid þína teingdamódur eptir dauda manns þíns, ad þú yfirgafst fødur þinn og módur þína og land þíns heimkynnis, og fórst til þess fólks sem þú ekki þekktir ádur. 12. Drottinn umbuni þitt verk, og þín laun verdi fullkomin af Drottni Israels Gudi, þeim undir hvørs vængi þú ert kominn ad leita hælis *). 13. Og hún sagdi: ó! ad eg mætti finna nád í þínum augum, minn Herra! því þú hefir huggad mig og ávarpad vinsamlega þína þjónustukvinnu, og er eg þó ekki sem ein af þínum þjónustukvinnum.

14. Og Bóas sagdi vid hana, þá matmáls tíminn kom: gakk þú híngad og et af braudinu, og dífdu þínum bita í edikid! þá settist hún hjá uppskérumønnunum, og hann rétti henni *) steikt ax og hún át og vard mett, og leifdi. 15. Og hún stód upp ad tína. Þá baud Bóas sínu fólki og mælti: og svo medal kérfanna (kornbindinanna) skal hún tína og þér skulud ekki gjøra gis ad henni *). 16. Og líka skulud þér draga úr kérfunum handa henni, og

V. 5. *) Adr. únga kvennsnipt. V. 7. *) Adr. hún kom, og hefir stadid (ad verki) frá því i morgun þángad til núna, hún sat litla (stund) heima. V. 10. *) Adr. ad þú hugar svo ad mér. Sbr. v. 19. V. 12. *) Sálm. 91, 4. V. 14. *) Adr. menn réttu henni. V. 15. *) Adr. og gjørid henni ekki til miska.

láta eptir liggja, að hún tíni það upp *), og ámælið henni ekki. 17. Og svo tíndi hún á akrinum allt til kvølds, og hún mældi *) það sem hún hafði tínt og það var hérumbil 1 Epha **) af byggi; 18. og hún tók það, og kom í staðinn, og hennar teingdamóðir sá hvað hún hafði tínt; og hún tók fram það sem hún hafði leift af mat sínum. 19. Þá mælti teingdamóðir hennar við hana: hvar hefir þú tínt í dag? og hvar hefir þú matast? blessaður sé sá sem hefir liðsinnt þér *). Og hún sagði sinni teingdamóður hjá hvørjum hún hefði matast og mælti: nafn þess manns, sem eg matadist hjá í dag, er Bóas. 20. Þá mælti Noomi við teingdadóttur sína: blessaður sé hann af Drottni, að hann hefir ekki slept elsku sinni við þá sem lifa og þá sem eru dánir! og Noomi mælti við hana: teingdur er okkur maðurinn, hann er einn vor Innlausnar maður *). 21. Og Rut sú Móabítiska mælti: líka sagði hann við mig: halltu þér til míns fólks, þángað til þeir hafa lokið við alla mína uppskéru. 22. Og Noómi mælti við Rut sína teingdadóttur: það er gott, mín dóttir! að þú gángir út með hans þernum, að menn ekki yfirfalli þig á øðrum akri. 23. Svo hélt hún sig til þerna Bóas og tíndi þángað til bygg — og hveiti uppskéran var á enda, en hún var þó hjá sinni teingdamóður.

## 3. Kapítuli.

*Bóas lofar að ekta Rut.*

1. Og Noomi hennar teingdamóðir sagði til hennar: mín dóttir! má eg þér ekki hvíldar leita að þér vegni vel *)? 2. Og heyrðu nú! er ekki Bóas okkur teingdur hjá hvørs þernum þú hefir verið? sjá! hann kastar á þessari nótt bygginu svo það hreinsist í sínum láfagarði. 3. Þvoðu þér nú, og smyr þú þig, og farðu í þína skikkju og gakk í láfagarðinn, og láttu ekki manninn verða varan við þig fyrri, enn hann hefir etið og drukkið, 4. og þegar hann leggur sig, þá taktu eptir hvar hann leggst niður, og gakk þú þar að, og taktu upp føtin til fóta og leggstu þar, en hann mun segja þér hvað þú skalt gjøra. 5. Og hún sagði til hennar: allt, sem þú segir mér, það vil eg gjøra.

6. Og svo gékk hún í láfagarðinn og gjørði eins og teingdamóðir hennar bauð henni. 7. Og þegar Bóas hafði etið og drukkið og hans hjarta var orðið glaðlegt, fór hann að leggja sig til svefns við korn-hrúgunnar enda; þá kom hún léttfætt, fletti upp føtunum til fóta hans, og lagði sig. 8. Og það skéði um miðnætti, þá varð manninum billt við og hann beigði sig þángað, og sjá! kvennmaður lá til fóta hans, 9. og hann mælti: hvør ert þú? og hún svaraði: eg em Rut, þín þerna, breið þína ábreiðu yfir þína þernu; því þú átt hana að innleysa! 10. og hann sagði: blessuð sért þú af Drottni, mín dóttir! þú hefir betur sýnt elsku þína seinast enn fyrst, að þú først ekki að elska úngu mennina, fátæka eða ríka, 11. og nú mín dóttir, vertu óhrædd! allt hvað þú segir vil eg við þig gjøra, því allt fólk í minni borg veit að þú ert væn kona. 12. Og nú sannarlega á eg að innleysa þig, þó er annar til sem það stendur nær, heldur enn mér. 13. Vertu (hér) í nótt og á morgun, vilji maðurinn innleysa þig, svo vel og gott, hann má það; en vilji hann það ekki, þá skal eg, svo sannarlega sem Drottinn lifir, innleysa þig! legg þig nú þángað til á morgun.

V. 16. *) Sbr, Lev. 19, 9. 23, 22. Devt, 24, 19. V. 17. *) Mældi, adr: þreskti. **) Ex. 16, 36. Devt. 25, 14. Dóm. 6, 19. 1 Sam. 1, 24. 17, 17. Esa. 5, 10. Ezek. 45, 11. Sak. 5, 6. V. 19. *) Sbr. v. 10. V. 20. Lev. 25, 25. 48. 49. V. 1. Sbr. Kap. 1, 9.

14. Og svo lá hún til fóta hans til morguns;
þá stód hún upp, ádur enn einn þekkti annan,
og hann sagdi: þad skal ekki spyrjast ad kona
hafi komid í láfagardinn. 15. Og hann sagdi:
kom þú med skýkkjuna sem þú ert í, og haltu
henni út! og hún gjørdi svo, og hann mældi
henni 6 mælira byggs, og lyfti á hana og gékk
inní stadinn, 16. og þá hún kom til teingda-
módir sinnar, mælti hún: hvørnig fór (hvør
ert þú) mín dóttir? og hún sagdi henni frá
øllu sem madurinn hafdi henni gjørt, 17. og
hún mælti: þessa 6 mælira byggs gaf hann
mér, því hann sagdi: þú skalt ekki fara tóm-
hendt til þinnar teingdamódur. 18. Og hún
mælti: vertu nú kyrr, mín dóttir! þángad til
þú fréttir hvørnig þetta fer, því madurinn mun
ekki hætta, fyrr enn hann í dag leidir þetta
mál til lykta.

## 4. Kapituli.

Bóas ektar Rut.

1. En Bóas gékk upp í portid og settist
þar, og sjá! innlausnar madurinn gékk fram
hjá sem Bóas hafdi talad um, og hann mælti:
kom þú híngad og set þig hér, minn vin! og
hann kom og settist nidur. 2. Og Bóas tók
tíu menn af øldúngum stadarins, og mælti:
setjid ydur hér! og þeir settu sig. 3. Og hann
mælti vid innlausnar manninn: þann akur sem
bródir okkar Elímelek átti, selur Nóomi, sem
kominn er heim aptur úr Móabs landi, 4. og
eg hugsadi: eg vil þér þad kunngjøra og segja:
kaup þú hann med vitund innbyggjaranna og
øldúnga míns fólks, viljir þú innleysa hann svo
innleystu, og viljir þú þad ekki, þá segdu mér,
svo eg viti þad, því einginn er til innlausnar
nema þú, og eg kém eptir þig. 5. Og hann
mælti: eg vil innleysa, og Bóas sagdi: ef þú
kaupir akurinn af Noomis hendi, svo kaupir
þú og Rut, þá Móabítisku, konu hins fram-
lidna, til þess ad uppvekja nafn hins fram-
lidna á hans eign a). 6. Og innlausnar
madurinn mælti: eg gét ekki innleyst fyrir mig,
svo ad eg spilli ekki minni eign. Leystu inn
þad sem eg skyldi innleysa, því eg gét ekki.
7. En þad var fyrrum sidur í Ísrael vid
brigdir og vidskipti, til þess ad stadfesta þar
med alla samnínga, ad annar tók af sér skóinn
og fékk hinum. Og þetta var sidur b) í Ísra-
el. 8. Og svo mælti innlausnar madurinn vid
Bóas: kaup þú handa þér! og tók af sér skó-
inn. 9. Og Bóas sagdi til øldúnganna og
til alls fólksins: verid þér vottar í dag ad eg
hefi keypt allt sem þeir Elímelek, Kilion og Mal-
on áttu af Noomis hendi; 10. og líka Rut,
þá Móabítisku, konu Malons, hefi eg keypt,
mér fyrir konu, til þess ad koma upp nafni
hins framlidna á hans eign, svo ad nafn þess
framlidna verdi ei upprætt frá hans brædrum
og úr porti hans stadar c). Vitni séud þér í
dag. 11. Og allt fólkid sem var í portinu d),
og øldúngarnir søgdu, vitni erum vær! Drott-
inn gjøri þá konu sem kémur í þitt hús, eins
og Rakel og Leu, sem bádar hafa uppbygt Ís-
raels hús e) og afla þú auds í Efrata og út-
vega þér nafn í Betlehem. 12. Og þitt hús
verdi sem Peres hús sem Tamar fæddi Júda
f), af því afkvæmi sem Drottinn mun géfa
þér af þessari konu!
13. Og svo tók Bóas Rut, og hún vard
hans kona, og hann bjó med henni og Drott-
inn lét hana verda þúngada og hún fæddi son.
14. Þá søgdu konurnar vid Noomi: lofadur
sé Drottinn, sem ekki hefir látid þér bregdast
innlausnar mann í dag, og hans nafn sé veg-
samad í Ísrael! 15. Hann mun verda þér end-

V. 5. *a*) Devt. 25, 5. 6. V. 7. *b*) Eda lagavenja adr: vitnisburdur sbr. Devt, 25, 9. V. 10. *c*) adr. úr hans stad-
ar þingi. V. 11. *d*) á þínginu *e*) Gen. 29, 32. 30, 23. etc. þ. e. æxludu Ísraels ættir. V. 12. *f*) Gen. 38, 6. fl.

urnæríng þinnar sálar og þín elli stod, því þín
teingdadóttir sem elskar þig, hefir hann borid, hún
sem er þér betri enn sjø synir. 16. Og Noomi
tók barnid og lagdi þad sér á brjóst og vard
þess fóstra. 17. Og nábúa konurnar gáfu
honum nafn og søgdu: sonur er fæddur Noomi,
og þær nefndu hann Obed. Sá sami er fad-
ir Ísai fødur Davíds. 18. Þetta er ættlegg-
ur Peres: Peres gat Hesron, 19. og Hesron gat
Ram og Ram gat Amminadab, 20 og Ammi-
nadab gat Nahesson, og Nahesson gat Salm-
on, 21. og Salmon gat Bóas og Bóas gat
Obed, 22. og Obed gat Ísaí; og Ísaí
gat Davíd.

# Fyrri Samúels Bók.

## 1. Kapítuli.

Samúels fædíng.

1. Og þar var madur nokkur af Rama-
taim Sofim, frá Efraims fjøllum, hann hét
Elkana a), sonur Jerohams, sonar Elíhu, sonar
Tohú, sonar Sufs, Efraimíti. 2. Og hann
átti tvær konur, ønnur hét Anna en hin Pen-
inna, og Peninna átti børn, en Anna átti
eingin børn. 3. Þessi sami madur fór á hvør-
ju ári úr sínni borg, til ad bidjast fyrir og færa
Drottni allsherjar b) fórnir í Síló; en þar
voru bádir Elí synir, Hofni og Píneas, Drott-
ins prestar. 4. Og þad skédi, daginn sem c)
Elkana offradi, ad hann gaf Peninnu konu
sínni, og øllum hennar sonum og øllum henn-
ar dætrum sína hlutdeild hvørri, 5. en Ønnu
gaf hann tvøfalda hlutdeild, því Ønnu elskadi
hann; en Drottinn hafdi apturbyrgt hennar
kvid d). 6. Og hennar elja mródgadi hana
med meidandi ordum, til þess ad skap-
rauna henni, af því Drottinn hafdi apturbyrgt
hennar kvid. 7. Svo gjørdi hann ár eptir ár;
svo opt sem þau fóru til Drottins húss, módg-
adi hún hana, og hún (Anna) grét og át ekki. 8.
Þá sagdi Elkana hennar madur vid hana:
Anna! því grætur þú, því etur þú ekki, og af
hvørju er þitt hjarta svo sorgfullt? er eg þér ekki
betri enn tíu synir? 9. Og Anna stód upp
eptir máltíd og eptir drykkju í Síló. En prest-
urinn Elí sat á stól vid dyrustaf Drottins bú-
stadar e), 10. og hún var ángurvær í sínni,
bad til Drottins og grét ákaflega, 11. og hún
gjørdi heit og mælti: Drottinn allsherjar, ef
þú lítur á eymd þinnar ambáttar, og minnist
mín og gleymir ekki þinni ambátt, og géfur
þinni ambátt son; svo vil eg géfa hann Drottni
alla hans lífdaga og eingin rakhnífur skal
koma á hans høfud f). 12. Og þad skédi þá hún
leingi hafdi bedid frammi fyrir Drottni, ad
Elí tók eptir hennar munni. 13. En Anna
taladi í sínu hjarta, hennar varir hreifdust ad
eins; en hennar róm heyrdu menn ekki; þá
hugsadi Elí ad hún væri drukkin. 14. Og
Elí sagdi vid hana: ætlar þú leingi ad vera
drukkin? láttu ølid renna af þér! 15. Og
Anna svaradi og mælti: nei, Herra minn! eg

V. 18. Gen. 46, 12. V. 19. 1 Kron. 2, 9. V. 20. 1 Kron. 2, 10. V. 21. 1 Kron. 2, 11. V, 22. 1 Kron. 2, 12. fl. V. 1. *a.* 1 Kron. 6, 27. 34. V. 3. *b.* Eda herskaranna. V. 4. *c.* Adv. á þeirri tíd (þegar). V. 5. *d.* Gen. 20, 18. V. 9. *e.* Þ e. samkundutjaldbúdarinnar. Kap. 3, 3. Salm. 5, 8. V. 11. *f.* Dóm. 13, 5.

em kona med þúngbúnu hjarta, vín heſi eg ekki drukkid né áfeingann drykk, en eg úthellti mínu hjarta fyrir Drottni a), 16. jafna þú ekki þinni ambátt vid aflægi b), því af ſtórri mædu og ſorg heſi eg híngad til talad. 17. Og Elí ſvaradi og mælti: far þú í fridi, og Israels Gud mun veita þér þína bæn, ſem þú badſt hann um. 18. Og hún ſagdi: ó ad þín ambátt mætti ſinna nád í þínum augum! og ſvo gékk konan burt ſína leid og matadiſt og var ei framar med (ſorgar) ſvip.

19. Og daginn eptir fóru þau ſnemma á fætur, og tilbádu fyrir Drottni, og fóru heimleidis, og komu til Rama í ſitt hús. Og Elkana kéndi ſinnar konu Onnu, og Drottinn minntiſt hennar c). 20. Og þad ſkédi á þeſsu ári ad Anna vard þúngud, og fæddi ſon og nefndi hans nafn Samúel (Gud heyrir) „því af Drottni heſi eg feingid hann med bæn". 21. Og Elkana lagdi á ſtad med øllu ſínu húſi, til þeſs ad færa Drottni þá árlegu fórn og ſitt áheit; 22. en Anna fór ekki; því hún ſagdi vid mann ſinn: þegar ſveinninn er vaninn af brjóſti, ſvo fer eg med hann, ad hann birtiſt fyrir Drottni og verdi þar ávalt úr því. 23. Og Elkana madur hennar mælti vid hana: gjør þú ſem þér ſýniſt, bíd þú þángad til þú heſir vanid hann af brjóſti, Drottinn efni ad eins ſitt ord! ſvo var konan heima, og hafdi ſon ſinn á brjóſti, þángad til hún vandi hann af. 24. Og hún lagdi á ſtad med hann, eptir ad hún hafdi vanid hann af brjóſti, og fór med þrjú naut og 1 Efa mjøls, og brúſa af víni, og fór med hann í hús Drottins í Síló, en ſveinninn var enn þá lítill; 25. og þau ſlátrudu einu nautinu, og fóru med ſveininn til Elí, 26. og hún mælti: heyr minn Herra! ſvo ſannarlega ſem þú, minn Herra lifir! eg er ſú kona ſem ſtód hér hjá þér til ad ákalla Drottinn, 27. um þennan ſvein bad eg, og Drottinn veitti mér mína bæn, ſem eg bad hann um, 28. líka vil eg ljá d) Drottni hann; ſvo leingi ſem hann lifir ſé hann Drottni lédur. Og hann tilbad þar frammi fyrir Drottni.

## 2. Kapituli.

*Onnu loſſaungur. Elí ſynir. Samúels þjónuſta. Elí umvøndun. Straff.*

1. Og Anna bad og mælti: mitt hjarta gledſt í Drottni, mitt horn a) er af Drottni hafid, minn munnur opnar ſig gégn mínum óvinum, því eg gled mig vid þitt lidſinni. 2. Einginn er heilagur ſem Drottinn; því eínginn er (þad) nema þú, og ekkért bjarg b) ſem vor Gud. 3. Talid ekki framar drambſemnar ord, óſvífni komi ekki út úr ydar munni! því Drottinn er ſá Gud ſem veit (allt) og af honum verda verkin vegin.

4. Bogi kappanna er ſundurbrotinn, og þeir veiku á beinunum, girda ſig med krapti. 5. Þeir mettu leigja ſig á mat, og þeir húngrudu halda hátíd (veitſlu). Sú ófrjóſſama fædir ſjø (børn), og ſú barnmarga ſyrgir. 6. Drottinn deydir og lífgar, færir nidur í helju og færir upp þadan c). 7. Drottinn gjørir fátækann og ríkann; hann nidurlægir og upphefur. 8. Hann lyptir þeim lítilmótlega upp úr duftinu, úr ſaurnum upphefur hann þann fátæka, til þeſs ad ſetja hann hjá furſtunum, og hann fær honum heidurſins ſtól. Því Drottins eru ſtólpar jardarinnar, og á þá ſetti hann jardríkid. 9. Fótſpor (fætur) ſinna gudhræddu vardveitir hann, en þeir gudlauſu tortínaſt í myrkri; því madurinn ſigrar ekki med ſtyrkleika. 10. Drottins mótſtødumenn verda huglauſir.

V. 15. *a.* Sálm. 62, 9. V. 16. *b.* Hebr. Belials dóttur þ. e. órádvanda eda ſkarnkvinnu. V. 19. *c.* Gen. 30, 22. V. 28. *d.* Eda géfa hann Drottni (til þjonuſtu) ſbr. v. 11. V. 1. *a.* Vald, og þad táp ſem valdid géfur kallaſt af Heb. horn, Sálm. 89, 18. 25. 92, 11. V. 2. *b.* Þ. e. Frelſari Sálm. 18, 3. 32. 47. V. 6. *c.* Dev. 32, 39. Sálm. 71, 20. Spek. b. 16, 13.

Drottinn þrumar uppyfir þeim í himninum a). Drottinn dæmir endimerkur jardarinnar og géfur vald sínum Kóníngi og lyptir upp horni síns smurda. 11. Og Elkana fór heim til sín í Rama, en sveinninn vard Drottins þénari undir umsjón prestsins Elí.

12. En Elí synir vóru audvirdilegir bófar, b); þeir vissu ekkért af Drottni. 13. Pad var háttur prestanna vid fólkid, ad þegar einhvør færdi fórn, kom prestsins þénari, þá kjøtid var ordid sodid, og hafdi þríyddan gaffal (sodkrók c) í hendi, 14. og rak ofan í kétilinn eda pottinn, eda pønnuna eda eldsgagnid, og hvad sem kom upp á gaffalnum, þad tók presturinn. Svo gjørdu þeir øllum Israel sem kom til Síló. 15. Sømuleidis, ádur enn þeir upptendrudu fituna d), kom prestsins þénari og sagdi vid þann sem offradi: láttu mig fá kjøt í steik handa prestinum, því hann vill ekki taka vid sodnu kjøti af þér, heldur hráu. 16. Og segdi madurinn vid hann: brenna munu þeir nú strax hid feita, taktu svo þad sem þitt hjarta girnist; þá svaradi hann: nei, heldur skaltú nú géfa þad; en ef ekki, tek eg þad med valdi. 17. Og synd þessara úngu manna var mikid stór fyrir Drottni, þvíad mennirnir forsmádu Drottins fórnir.

18. En Samúel þjónadi Drottni sem sveinn, og var í línhøkli, 19. og módir hans gjørdi honum litla yfirhøfn, og færdi honum ár eptir ár, þegar hún kom med manni sínum, ad frambera þá árlegu fórn. 20. Og Elí blessadi Elkana og konu hans og mælti: Drottinn géfi þér afkvæmi med þessari konu í stadinn fyrir þad sem þid hafid léd Drottni! og þau fóru heim til sín. 21. Og þegar Drottinn rendi auga til Onnu, vard hún þúngud og fæddi þrjá syni og tvær dætur. Og sveinninn Samúel, óx upp hjá Drottni.

22. En Elí var mikid gamall, og heyrdi allt sem hans synir adhøfdust vid allann Israel, og ad þeir lágu hjá konunum sem til þjónustunnar inngeingu um dyr samkundutjaldbúdarinnar e), 23. og hann sagdi vid þá: hvarfyrir hagid þér ydur sem ord fer af ydur? því eg heyri íllt umtal um ydur af øllu þessu fólki. 24. Ekki svo synir mínir; þad rikti er ekki gott sem eg heyri. Pér komid Drottins fólki til yfirtrodslu; 25. syndgi madur móti manni, svo dæmir Gud hann f), en syndgi nokkur móti Drottni, hvør má bidja fyrir hann? En þeir gégndu ekki rødd fødur síns, því Drottinn hafdi vilja til ad deyda þá. 26. En sveinninn Samúel fór vaxandi og kom sér betur og betur bædi vid Drottinn og vid mennina.

27. Og þar kom Gudsmadur nokkur til Elí og sagdi til hans: svo segir Drottinn: hefi eg ekki opinberad mig þíns fødurs húsi þegar þeir vóru í Egyptalandi í húsi Faraós. 28. Og valid hefi eg hann fyrir minn prest af øllum Israels ættkvíslum, til ad offra á mínu altari, til ad brenna reykélsi og bera frammi fyrir mér høkulinn; og eg gaf húsi fødur þíns allar brennifórnir Israels sona g). 29. Hvar fyrir fóttrodid þér mínar fórnir og matoffur sem eg hefi bodid fram ad bera í bústad (mínum). Og þú heidrar þína syni meir enn mig, til þess ad feita ydur á (frumgróda) enu besta af fórnum míns fólks Israels. 30. Því segir Drottinn, Israels Gud: eg hefi sagt: þitt hús og hús fødur þíns skal þjóna mér eilíflega; en nú segir Drottinn: þad sé fjærri mér! því þann heidra eg sem mig heidrar; en sá sem forsmáir mig verdur til skammar. 31. Sjá! sá tími kémur ad eg høgg af þinn arm og arm

V. 10. *a.* Kap. 7, 10. V. 12. *b.* Hebr. Belials synir. V. 13. *c.* Exód. 27, 3. V. 15. *d.* Lev. 3, 3. fl. V. 22. *e.* Ex. 38, 8. V. 25. *f.* Adr. svo má bidja Gud fyrir hann. V. 28. *g.* Levi. 10, 14.

þíns føðurs húss, svo að einginn verður aldraður í þínu húsi. 32. Og þú munt sjá meðbiðil í bústað (mínum) a), allan þann tíma, er (Drottinn) mun gjøra Ísrael gott, svo að aldrei hér eptir skal aldraður maður vera í þínu húsi. 33. Þó skaltu sjá að aldrei mun vanta af þér mann við mitt altari, til þess þú hafir þá augnaraun og þér gremjist í geði; en øll viðkoma þíns húss skal deya í blóma síns aldurs. 34. Og það sé þér til merkis, sem koma mun yfir báða þína syni, yfir Hofni og Pineas: á sama degi munu þeir báðir deya. 35. Og eg mun setja mér trúan prest, hann mun gjøra eins og mér er í hjarta og sinni, og eg mun byggja honum staðfast hús, og hann skal ávallt gánga fyrir mínum smurða. 36. Og það skeður, að hvør sem eptir verður af þínu húsi, mun koma til að niður krjúpa fyrir honum, vegna smáskildíngs og vegna brauðsneiðar, og mun segja: bættu mér þó við eitthvørt prestsembættið, svo eg fái einn bita brauðs að eta.

## 3. Kapítuli.

Samúels þjónusta.

1. En sveininn Samúel þjónaði Drottni undir umsjón Elí. Og orð Drottins var skjaldgjæft b) á þeim døgum; sjónir voru ekki ýduglegar. 2. Og það skeði á þeim sama degi sem Elí lá í sínu rúmi, hans augu voru farin að sljófgast c), hann gat ekki séð, 3. og Guðs lampi var ekki slokknaður, og Samúel lá í Drottins bústað, hvar sáttmálsørkin var, 4. þá kallaði Drottinn á Samúel, og hann sagði: hér em eg. 5. Og hann hljóp til Elí og mælti: hér em eg, því þú kallaðir á mig. Og hann sagði: eg hefi ekki kallað, farðu aptur og legg þú þig. Og hann fór og lagði sig. 6. Þá kallaði Drottinn Samúel aptur. Og Samúel stóð upp, og gékk til Elí, og mælti: hér em eg, því þú kallaðir mig. Og hann sagði: eg hefi ekki kallað, minn son! far þú aptur og legg þú þig! 7. En Samúel þekkti ekki enn þá Drottinn, og enn nú var honum ekki orð Drottins opinberað. 8. Þá kallaði Drottinn Samúel aptur í þriðja sinn. Og hann stóð upp og gékk til Elí, og mælti: hér em eg, því þú hefir kallað til mín. Þá sá Elí að Drottinn hafði kallað sveininn. 9. Og Elí sagði við Samúel: far þú nú og legg þig, og verði nú á þig kallað, þá svara þú: talaðu, Drottinn! því þinn þénari heyrir. Og Samúel fór burt og lagðist fyrir á sinn stað.

10. Þá kom Drottinn og gékk þángað, og kallaði nú í þetta sinn eins og í fyrra sinn: Samúel! Samúel! og hann svaraði: tala þú! því þinn þénari heyrir. 11. Og Drottinn sagði til Samúels: sjá! eg gjøri það í Ísrael, að hvør sem það heyrir, þess hins sama bæði eyru skulu undirtaka d). 12. Á þeim sama degi mun eg fullgjøra móti Elí allt sem eg hefi talað gégn hans húsi, byrja og fullgjøra mun eg. 13. Því eg hefi kunngjørt honum, að eg að eilífu muni straffa hans hús, vegna þeirrar yfirtroðslu að hann vissi af, að hans synir bøkuðu sér bølvan, og hann hindraði þá ekki e). 14. Því sver eg Elí húsi: misgjørníngur Elí húss skal ekki verða forlíkaður að eilífu hvørki með fórnum né matoffri. 15. Og Samúel lá allt til morguns, þá upplauk hann dyrunum á Drottins húsi. En Samúel þorði ekki að segja Elí frá þessari sýn. 16. Þá kallaði Elí á Samúel, og mælti: Samúel, minn son! og hann mælti: hér em eg. 17. Og hann sagði: hvað er það, sem hann hefir tal-

V. 32. *a.* Aðr. þú munt sjá bústaðarins mótstøðumann. V. 1. *b.* Sbr. Am: 8, 11. V. 2. *c.* Gen. 27, 1. V. 11. *d.* 2. Kóng. 21, 12. V. 13. *e.* Aðr: ávítaði þá ekki. Aðr: og leit ekki óhýrt til þeirra. V. 17. *f.* Kap. 14, 44. 1 Kóng. 19, 2.

ad vid þig? leyndu mig því ekki! svo gjöri Gud vid þig og enn framar, ef þú leynir mig nokkru af því sem til þín er talad. 18. Þá tjádi Samúel honum øll þessi ord, og leyndi hann eingu. Og hann mælti: hann er Drottinn, gjöri hann hvad honum gott þykir!

19. Og Samúel óx og Drottinn var med honum og lét ekkért af hans ordum falla til jardar a). 20. Og allur Israel frá Dan til Bersaba kannadist vid, ad Samúel var trúad til þess ad vera Drottins spámadur. 21. Og Drottinn hélt áfram ad opinberast í Síló; eptir þad Drottinn hafdi birtst Samúeli í Síló fyrir ord Drottins. Og ordstýr Samúels gékk út til alls Israels.

## 4. Kapítuli.

Sáttmálsørkin er tekin; Elí synir falla; hann deyr.

1. Og Israel fór út á móti Filisteum til bardaga, og þeir settu herbúdir sínar hjá Ebeneser b), og Filistear settu herbúdir sínar hjá Afek c). 2. Og Filistear fylktu lidi gagnvart Israel, og bardaginn hófst, og Israel var rekinn á flótta af Filisteum, og þeir feldu í valin á vígvellinum hérumbil 4 þúsundir. 3. Og þegar fólkid kom í herbúdirnar, søgdu þeir eldstu í Israel: hví hefir Drottinn í dag látid oss lída þenna ósigur fyrir Filisteum. Látum oss sækja Drottins sáttmálsørk d) til Síló, svo hún sé hér vor á medal og frelsi oss af hendi vorra óvina! 4. og svo sendi fólkid til Síló, og þeir tóku þadan sáttmálsørk Drottins alsherjar, þess sem situr í hásæti yfir þeim Kerúbim e); en þar voru bádir synir Elí, Hofni og Pineas, med Guds sáttmálsørk.

5. Og þad skédi, þá sáttmálsørk Drottins kom í herbúdirnar, upphóf allur Israel mikid fagnadar óp, svo ad jørdin bifadist. 6. Og Filistear heyrdu óminn af ópinu og søgdu: hvad merkir ómur þessa mikla óps í herbúdum enna Ebresku? Og þeir urdu þess varir ad Drottins ørk var komin í herbúdirnar. 7. Þá sló ótta yfir Filisteana, og þeir søgdu: Gud er kominn í herbúdirnar; og søgdu: vei oss! því slíkt var ekki í gjær og ekki í fyrra dag (ádur). 8. Vei oss! hvør mun bjarga oss undan hendi þessa volduga Guds? þad er sá Gud sem sló Egyptska med allsslags plágum í eydimørkinni. 9. Neytid hreysti, og verid menn, þér Filistear! svo þér þurfid ekki ad þjóna Ebreskum eins og þeir hafa þjónad ydur; svo verid þá menn, og berjist! 10. Og Filistear børdust, og Israel hafdi ósigur, og þeir flýdu, hvør til síns tjalds, og mannfallid var mjøg mikid, og af Israel féllu 30 þúsundir fótgángandi manna. 11. Og Guds ørk var tekin, og bádir synir Elí féllu, Hofni og Pineas.

12. Þá hljóp madur af Benjamín af vígvellinum og kom til Síló þann sama dag, í rifnum klædum og med mold yfir sínu høfdi. 13. Og sem hann kom, sjá! þá sat Elí á stólnum og horfdi út á veginn, því hans hjarta var skélkad vegna Guds arkar; og þá madurinn var kominn, til ad segja frá þessu í stadnum, þá harmadi f) allur stadurinn. 14. Og Elí heyrdi óminn af harmatølunum g) og mælti: hvad merkir ómur þessarar háreisti; og madurinn hradadi sér og kom, og sagdi Elí frá. 15. En Elí var 98ta ára gamall, og hans augu voru dimm h) og hann gat ekki sjed. 16. Og madurinn sagdi vid Elí: eg kém frá vígvellinum, og í dag flúdi eg af vígvellinum. Og hann mælti: hvørnig geingur þad? minn son! 17. Og sendimadurinn svaradi og mælti:

V. 19. *a.* Jós. 21, 45. 23, 14. V. 1. *b.* Kap. 7, 12. *c.* Jós. 15, 53. V. 3. *d.* Kap. 14, 18. V. 4. *e.* 2 Sam. 6, 2. Sálm. 80, 2. 99, 1. V. 13. *f.* Ađr. hrein. V. 14. *g.* Hrinurnar. V. 15. *h.* Hebr. stódu þ. e. hann var starblindur. 1 Kóng. 14, 4.

Ísrael er flúinn fyrir Filisteum, og líka var mikid mannfall medal fólksíns, og líka eru bád- ir synir þínir daudir, Hofni og Pineas, og Guds ørk er tekin. 18. Og þad skédi, þá hann minntist á Guds ørk, ad hann féll aptur ábak af stólnum vid dyrnar og hálsbrotnadi og dó, því gamall var madurinn og þúngur. En hann hafdi dæmt Ísrael í 40 ár.

19. Og hans teingdadóttir, kona Pineas, var þúngud og ad því komid ad hún skyldi fæda; og sem hún heyrdi þau tídindi ad Guds ørk væri tekin og hennar teingdafadir og henn- ar madur voru dánir, þá hné hún nidur og fæddi, því jódsóttin greip hana. 20. Og í því bili hún var ad deya, søgdu þær sem hjástódu: vertu óhrædd! því þú hefir son fædt! en hún ansadi ekki, og gaf því eingann gaum. 21. Og hún kalladi sveininn Ikabad (heidurlaus) og mælti: farinn er heidurinn (dýrdin) frá Ís- rael! vegna þess ørk Guds var tekin, og vegna síns teingdaføδurs og vegna síns manns. 22. Því sagdi hún: burt er heidurinn (dýrdin) frá Ísrael, af því ad Guds ørk var tekin.

## 5. Kapítuli.

Undur hjá Filisteum vegna arkarinnar.

1. En Filistear høfdu tekid Guds ørk og flutt hana frá Ebeneser til Asdod a). 2. Og Filistear tóku Guds ørk og fluttu hana í Dagons hús og settu hana hjá Dagon, 3. og þegar þeir í Asdod risu snemma næsta morg- un, sjá! þá lá Dagon á sínu andliti á jørdu (gólfinu) fyrir framan Drottins ørk. Og þeir tóku Dagon og settu hann aptur á sinn stad. 4. Og þá þeir annars dags fóru snemma á fæt- ur, sjá! þá lá Dagon á sínu andliti á jørdu fyrir framan Drottins ørk; og høfud Dagons og hendur bádar voru afbrotnar vid þrepskjøld- inn; einasta var eptir hid annad af Dagon.. 5. (Því stíga Dagons prestar og allir sem inngánga í Dagons hús ekki á þrepskjøld Dag- ons húss í Asdod, allt til þessa dags); 6. og hønd Drottins lá þúng á Asdodítunum, og hann eydilagdi þeirra land og sló þá med kýlum b), Asdod og hennar hérad. 7. Og er fólk í Asdod sá ad þad gékk svoleidis til, søgdu þeir: ørk Ísraels Guds skal ekki hjá oss vera, því hørd er hans hønd á oss og á Dagon vorum Gudi.

8. Þá gjørdu þeir út sendimenn, og sam- ansøfnudu øllum Filistea høfdíngjum til sín, og søgdu: hvad eigum vér ad gjøra vid Ísraels Guds ørk? og þeir søgdu: farid med ørk Ísra- els Guds til Gat. Og þeir fluttu þángad ørk Ísraels Guds. 9. Og þad skédi, eptir ad hún var þángad flutt, ad þá kom hønd Drottins yfir stadinn, mikid stór skélfíng, og hann sló stadarfólkid svo smáa sem stóra, svo ad á þeim hlupu upp kýli. 10. Þá sendu þeir Guds ørk til Ekron. Og þegar Guds ørk kom til Ekr- on c) þá kveinudu þeir í Ekron, og søgdu: þeir hafa flutt til mín Ísraels Guds ørk til ad deyda mig og mitt fólk. 11. Þá gjørdu þeir út sendimenn og samansøfnudu øllum Filistea høfdíngjum og søgdu: sendid burt ørk Ísra- els Guds, svo hún komist á sinn stad og deydi mig ekki og mitt fólk, því daudleg hrædsla var í øllum stadnum; þúng var Guds hønd þar. 12. Og fólkid sem ekki dó, var slegid med kýlum og óp stadarins sté upp til himins.

## 6. Kapítuli.

Ørkin er send heim. Betsemítar taka a móti henni, en kunna ekki med ad fara.

1. Og Drottins ørk var í Filistea landi í sjø mánudi. 2. Og Filistear kølludu prestana og spáfararmennina og søgdu: hvad eigum vér ad gjøra vid ørk Drottins? segid oss med hvør-

V. 1. *a.* Jós. 15, 46. 47. 1 Makk. 10, 83. Postgb. 8, 40. V. 6. *b.* Devt. 28, 27. Sár bak til eda lenda særi. (gilliniæd). V. 10. *c.* Jós. 15, 46.

ju ver eigum ad senda hana á sinn stad. 3.
Og þeir sögdu: Ef þér sendid burt örk Israels
Guds, svo meigid þér ekki senda hana tóma, held-
ur verdid þér ad greida honum (Drottni) skulda
offur; þá mun ydur batna, og ydur mun verda
kunnugt hvörs vegna hans (hegnandi) hönd
hefir ekki frá ydur vikid. 4. Og þeir sögdu:
hvad er þad skulda offur sem vér eigum hon-
um ad greida? Og þeir sögdu: eptir tölu
Filisteanna höfdíngja, fimm kýli af gulli og
fimm mýs af gulli; því ein plága er yfir öll-
um og líka yfir ydar höfdíngjum. 5. Og gjör-
id nú myndir eptir ydar kýlum, og myndir
eptir ydar músum, sem skémma landid og géfid
Israels Gudi heidurinn. Líklega lætur hann
sína hönd léttari verda á ydur, og á ydar
Gudi, og á ydar landi. 6. Og hvar fyrir vil-
jid þér forherda ydar hjörtu, eins og Egyptsk-
ir og Faraó forherdtu sitt hjarta? var þad
ekki svo, þegar hann hafdi svalad gédi sínu á
þeim a), þá slepptu þeir þeim svo þeir fóru
burt? 7. Og takid nú og gjörid nýan vagn
og tvær kýr sem kálfar gánga undir, á hvör-
jar ekki hefir komid ok, og spennid kýrnar fyrir
vagninn, og takid frá þeim kálfana og látid
þá inn. 8. Og takid örk Drottins og setjid
hana í vagninn og þá gull gripi sem þér greid-
id honum í skuldaoffur, látid þá í kistil vid hlid
hennar og sendid hana á stad ad hún fari.
9. Og sjáid! ef ad hún fer veginn til sinna
landamerkja til Betsemes, svo hefir hann gjört
oss þessa miklu ólukku; en ef ekki, svo vitum
vér ad hans hönd hefir oss ekki slegid; þad var
oss þá tilviljun.

10. Og mennirnir gjördu svo og tóku tvær
kýr sem kálfar geingu undir, og spentu þær
fyrir vagninn, en kálfunum héldu þeir inni.
11. Og þeir settu örk Drottins á vagninn og
kistilinn og gull mýsnar og kýla myndirnar, 12.
og kýrnar fóru rakleidis veginn til Betsemes;
beina leid fóru þær og bauludu í því þær fóru
áfram, og viku hvörki til hægri né vinstri, og
höfdíngjar Filisteanna geingu á eptir þeim allt
ad landamerkjum Betsemis hérads b), 13.
en Betsemítar voru ad hveiti uppskéru í daln-
um; og þeir hófu upp sín augu og sáu örk-
ina og glöddust ad sjá hana. 14. Og vagn-
inn kom á akur Jósúa Betsemíta, og nam þar
stadar; en þar var steinn mikill. Og þeir
klufu vidin sem vagninn var gjördur af, og
offrudu kúnum Drottni til brennifórnar. 15.
Og Levítarnir tóku örk Drottins af (vagnin-
um) og kistilinn hjá henni, í hvörjum ad voru
gullgripirnir, og settu á stóra steininn, og fólk-
id í Betsemes offradi Drottni brennifórn og
slátradi slátrunarfórn á þeim sama degi. 16.
Og þeir fimm höfdíngjar Filisteanna sáu þad,
og fóru þann sama dag til baka til Ekron.
17. En þetta eru þau gull kýli sem Filistear
greiddu Drottni sem skuldaoffur: fyrir Asdod
eitt, fyrir Gasa eitt, fyrir Askalon eitt, fyrir
Gat eitt, fyrir Ekron eitt. 18. Og gull mýsn-
ar (voru) eptir tölu Filisteanna stada, eptir þeim
fimm höfdíngjum, frá borgunum til þorpanna
á flatlendinu c). Og til ens stóra steins
Abel á hvörn þeir settu örk Drottins, (hvör
steinn) allt til þessa dags (er) á akri Bet-
semitans Jósúa.

19. En hann (Drottinn) sló nokkra af fólk-
inu í Betsemes, af því þeir litu inní d) örk
Drottins, og sló medal fólksins sjötygi menn og
fimmtíu þúsund menn, e) og fólkid harmadi ad
Drottinn hafdi gjört svo mikid mannfall medal
fólksins. 20. Og fólkid í Betsemes sagdi: hvör

V. 6. *a.* Adr. hafdi ítrekad stórvirki móti þeim. sbr. Ex. 10, 2. V. 12. *b.* Jós. 21, 16. 2 Kóng. 14, 11. V. 18. *c.* Devt 3, 5. V. 19. *d.* Adr. horfdu á; hér vid lá dauda straff. Ex. 4, 5. 20. V. 19. *e.* adr: 70 manns af fimmtíu þúsundum.

gétur stadist fyrir Drottni, þessum heilaga Gudi? hvørt og til hvørs skal hann frá oss fara? 21. Og þeir sendu menn til innbyggjaranna í Kirjat-Jearim a) og søgdu: Filistear hafa flutt til baka ørk Drottins, komid híngad og flytjid hana til ydar.

## 7. Kapítuli.

Um Samúel.

1. Þá komu menn frá Kirjat-Jearim og sóktu ørk Drottins, og fluttu hana í hús Abínadabs á hædinni, og vígdu Eleasar hans son til ad vakta ørk Drottins. 2. Og þad skédi, frá þeim degi ad ørkin kom til Kirjat-Jearim, leid lángur tími og þad urdu 20 ár. Og allt Israels hús kveinadi fyrir Drottni. 3. Þá taladi Samúel til alls Israels húss, og mælti: ef þér snúid ydur af øllu hjarta til Drottins, þá fjarlægid gudi hinna útlendu frá ydur, og Astarot, og stýrid ydar hjarta til Drottins, og þjónid honum einum, svo hann frelsi ydur af hendi Filisteanna. 4. Þá fjarlægdu Israelssynir Baal og Astarot og þjónudu Drottni einum. 5. Og Samúel mælti: samansafnist allur Israel til Mispa, ad eg bidji fyrir ydur til Drottins. 6. Og þeir samansøfnudust til Mispa, og jusu vatn, og úthelltu því fyrir Drottni, og føstudu þann sama dag, og søgdu: vér høfum syndgast móti Drottni. Og Samúel dæmdi Israelssyni í Mispa. 7. Og er Filistear heyrdu, ad Israelssynir samansøfnudust í Mispa, svo fóru høfdingjar Filistea á móti Israel, og Israelssynir heyrdu þad, og óttudust Filisteana. 8. Og Israelssynir søgdu vid Samúel: hætt þú ekki ad ákalla Drottinn vorn Gud fyrir oss, ad hann frelsi oss af hendi Filisteanna. 9. Þá tók Samúel dilk og fórnfærdi Drottni svo sem heila brennifórn, og Samúel kalladi til Drottins fyrir Israel, og Drottinn bænheyrdi hann. 10. Og einmidt þegar Samúel frambar brennifórnina, løgdu Filistear til orustu vid Israel, þá sendi Drottinn, á hinum sama degi, miklar þrumur yfir Filisteana, og tvístradi þeim og þeir voru reknir á flótta af Israel. 11. Og Israels menn fóru út frá Mispa, og eltu Filistea, og ráku flóttann allt ad (láglendinu) fyrir nedan Betkar. 12. Þá tók Samúel stein og reisti hann milli Mispa og Sen, og nefndi hann Ebeneser b), (hjálprædis stein) og sagdi: híngad ad hefir Drottinn hjálpad oss. 13. Og svona voru Filistear beigdir og komu ekki framar í Israels land; og hønd Drottins var á móti Filisteum, svo leingi sem Samúel lifdi. 14. Og þeir stadir bættust aptur vid Israel sem Filistear høfdu tekid frá Israel, frá Ekron allt til Gat, og líka héradid rifu Israels menn frá Filisteum. Og fridur komst á milli Israels og Amoríta. 15. Og Samúel dæmdi Israel svo leingi sem hann lifdi. 16. Og hann ferdadist ár eptir ár til Betel og Gilgal og Mispa, og dæmdi Israel á øllum þessum stødum. 17. Og hans heimleid var til Rama, því þar var hans hús, og þar dæmdi hann Israel, og þar bygdi hann Drottni altari.

## 8. Kapítuli.

Israels menn bidja um Koníng.

1. Og þad skédi þá Samúel var ordinn gamall, ad hann setti syni sína sem dómara yfir Israel. 2. Og nafn hans frumborna sonar var Jóel, og nafn hins annars Abja, þeir dæmdu í Bersaba. 3. En hans synir geingu ekki á hans vegum, og geingu af leid eptir gróda, og þádu gáfur d) og beigdu réttinn. 4. Þá samansøfnudust allir þeir eldstu í Israel og komu til Samúel í Rama e); 5. og søgdu til

V. 21. *a.* Jós. 15, 9. 18, 14. V. 12. *b.* Kap. 4, 1. Ex. 23, 8. Devt. 16, 19. V. 4. *e.* Kap. 7, 17. V. 17. *c.* Kap. 1, 19. 8, 4. V. 3. *d.* Eda mútur

hans: sjá! þú ert ordinn gamall, og þínir
synir gánga ekki á þínum vegum; settu oss
nú Konúng sem dæmi oss, eptir sid allra þjóda a).
6. Og þessi ord mislíkudu Samúel, ad þeir
søgdu: géf oss Konúng, sem dæmi oss; og
Samúel bad til Drottins. 7. Og Drottinn
sagdi vid Samúel: gégn þú rødd fólksins í
øllu sem þeir vid þig tala; því ekki hafa þeir
útskúfad þér, heldur hafa þeir útskúfad mér,
ad eg skuli ekki vera Kóngur yfir þeim. 8.
Eins og þeir hafa ávallt breytt frá þeim degi
ad eg flutti þá út af Egyptalandi allt til þessa
dags, ad þeir yfirgáfu mig, og þjónudu ødrum
gudum, eins gjøra þeir þér. 9. En hlýd þú
nú þeirra raust; aptradu þeim ad eins alvar-
lega og kunngjørdu þeim háttu þess Konúngs
sem yfir þeim mun drottna.
10. Þá sagdi Samúel fólkinu, sem heimti af
honum Konúng, øll Drottins ord. 11. Og
hann mælti: sá mun vera Kóngsins háttur,
þess sem yfir ydur drottnar: ydar syni mun
hann taka, ad þeir skipi sér nidur á hans
vagna og medal hans reidmanna, og ad þeir
hlaupi fyrir hans vagni, 12. og til ad gjøra
þá høfudsmenn yfir þúsund, og høfudsmenn
yfir fimtýgir, og ad þeir plægi hans akur, og
uppskéri hans uppskéru og gjøri hans strídstól
og vagntól. 13. Og ydar dætur mun hann
taka til þess þær búi til smyrsli, eldi og baki.
14. Og ydar akra, og ydar víngarda og ydar
olíugarda, þá bestu, mun hann taka og géfa
sínum þrælum. 15. Og ydar sádlønd og ydar
víngarda mun hann láta ydur tíunda, og géfa
þad sínum géldíngum og þrælum. 16. Og
hann mun taka ydar þræla og ydar ambáttir
og ydar fríduftu úngmenni og ydar asna og
brúka til sinna verka. 17. Ydar saudfénad
mun hann láta ydur tíunda og þér sjálfir mun-
ud vera hans þrælar. 18. Og þér munud
á þeim sama tíma æpa søkum ydar Konúngs
sem þér hafid ydur valid, og Drottinn mun
ekki heyra ydur á þeim sama tíma. 19. En
fólkid vildi ei gégna Samúels raust, og þeir
søgdu: nei! Kóngur skal yfir oss vera, 20. ad
vér séum eins og adrar þjódir, og Kóngur
dæmi oss, og fari út á undan oss, og heyi vor
stríd. 21. Og Samúel heyrdi øll ummæli
fólksins, og taladi þau aptur fyrir eyrum
Drottins. 22. Og Drottinn sagdi til Samú-
els: hlýd þú þeirra raust og settu Konúng yfir
þá. Og Samúel sagdi til Israels manna:
farid burt, hvør til síns stadar b).

## 9. Kapituli.

Samúel kýs og smyr Saul til Kóngs.

1. Og þar var madur af Benjamín, hans
nafn var Kis, sonur Abíels, sonar Serors, sonar
Bekorats, sonar Afias, sonar Benjaminíta nokk-
urs, mikid audugur madur c). 2. Og hann
átti son, sem hét Sál, úngann d) og frídann,
svo ad einginn af Israelssonum var frídari enn
hann, frá ørlum og upp þadan hærri øllum
mønnum. 3. Og Kis, fødur Sáls, vantadi
øsnur, og Kis sagdi vid Sál, son sinn: Sál!
taktu med þér einn af sveinunum og taktu þig
til, fardu og leitadu ad øsnunum. 4. Og hann
gékk um Efraímsfjøll og um Salísaland, og
þær vóru þar ekki, svo fóru þeir um Saga-
limsland, og (þar var) eingin. Og hann gékk
um Benjamínsland og þeir fundu þær ekki. 5.
Þeir vóru komnir í landid Suf, þegar Sál
sagdi til síns sveins, sem med honum var: kom
þú! látum oss hverfa heim aptur; máské fad-
ir minn sé ordinn afhuga øsnunum, en hrædd-
ur um okkur. 6. Og hann sagdi til hans:
heyrdu samt! Guds madur er í þessum stad,

V. 5. *a.* Deut 17, 14. fl. V. 22. *b.* Kap. 10, 25. V. 1. *c.* Rut. 2, 1. adr: duglegur stridsmadur. Jós. 1, 14.
V. 2. *d.* adr: gjørfuglegann.

og madurinn er heidradur; allt hvad hann tal-
ar geingur eptir; látum oss þángad fara, lík-
lega gjörir hann oss þann veg kunnan sem vér
gaungum á. 7. Og Sál sagdi vid svein sinn: sjá!
ef vid förum, hvad færum vid þá manninum?
því braudid er uppgeingid úr vorum malpoka,
og vid höfum einga gjöf ad færa þeim Guds
manni a); hvad höfum vid hjá okkur? 8. Og
sveinninn svaradi aptur Sál, og mælti: sjá! í
minni hendi er fjórdipartur af silfurs sikli, þad
vil eg gefa Guds manninum, ad hann gjöri
oss kunnan vorn veg. 9. (Fyrrum töludu menn
í Israel svo, þegar þeir geingu ad spyrja Gud:
komid! látum oss gánga til Sjáandans, því
Spámanninn á þessum dögum, kölludu menn
fordum Sjáanda b). 10. Og Sál sagdi vid
sinn svein: þitt tal c) er gott, kom! látum oss
fara. Og svo geingu þeir til stadarins hvar
Guds madurinn var.

11. Þeir geingu á hæd stadarins, þar hittu
þeir ambáttir sem geingu út ad sækja vatn, og
sögdu vid þær: er Sjáandinn hér? 12. Og
þær svörudu þeim og mæltu: já, líttu til, flýttu
þér nú, því í dag kom hann í stadinn; í dag
færir fólkid fórnir á hædinni. 13. Þegar þid
komid í stadinn munud þid finna hann, ádur
enn hann geingur upp á hædina til ad eta;
því fólkid etur ekki fyrr enn hann kémur, því
hann blessar fórnina, þar eptir eta þeir sem bodn-
ir eru. Og gángid nú upp þángad, því einmidt
í dag munud þér finna hann; 14. og svo
geingu þeir burt til stadarins. Þá þeir komu
inní stadinn, sjá! þá gékk Samúel út á móti
þeim til þess ad gánga upp á hædina. 15.
En Drottinn hafdi opinberad Samúel (þetta)
einum degi ádur enn Sál kom og hafdi sagt:
16. Í þetta mund á morgun sendi eg til þín
mann úr Benjamínslandi, smyr þú hann til
fursta yfir mitt fólk Israel, og hann mun frelsa
mitt fólk af hendi Filisteanna; því eg hefi lit-
id til d) míns fólks og þess óp er komid til
mín. 17. Og sem Samúel sá Sál, mælti
Drottinn til hans: sjá þar manninn sem eg
taladi um vid þig; hann skal drottna yfir mínu
fólki. 18. Og Sál gékk til Samúels í (borg-
ar) hlidinu, og mælti: segdu mér, eg bid, hvar
er hérna Sjáandans hús? 19. Og Samúel
svaradi Sál og mælti: eg em Sjáandinn, gakk
á undan mér upp á hædina, og etid þér med
mér í dag, og á morgun læt og þig fara, og
allt sem þú hefir í huga (vilt vita) mun eg
gjöra kunnugt. 20. Og hvad ösnurnar áhrærir
sem nú í dag fyrir þrem dögum týndust fyrir
þér, þá kjærdu þig ekki um þær, því þær eru
fundnar. Og hvörjum mun tilheyra allt æski-
legt í Israel nema þér og þíns födurs húsi?
21. Og Sál svaradi og mælti: er eg ekki Ben-
jaminíti, af minnstu Israels ættkvísl, og mín
ætt sú minnsta af öllum ættum Benjamíns
ættkvíslar, því talar þú vid mig slík ord? 22.
Og Samúel tók Sál og hans svein og leiddi
þá í bordstofuna, og vísadi þeim á sæti efst
medal þeirra sem bodnir vóru; en þar vóru nálægt
þrjátíu. 23. Og Samúel sagdi vid kokkinn:
færdu mér stikkid sem eg fékk þér, um hvört
eg sagdi: taktu þad frá. 24. Þá bar kokkur-
inn fram lærid (bógin) og þad sem þar med
fylgir og setti fyrir Sál, og (Samúel) mælti:
sjá! þad frá skilda, legg þú þad fyrir þig! et!
því þér var þad geymt, til þess nú (frá því)
eg sagdi: eg hefi bodid fólkinu. Og svo át
Sál med Samúel þann sama dag.

25. Og þeir geingu af hædinni nidur í stad-
inn, og hann taladi vid Sál upp á þakinu.

V. 7. *a.* Dóm. 13, 15. 1 Kóng. 14, 3. V. 9. *b.* Núm. 12, 6. 24, 4. 1 Kron. 9, 22. V. 10. *c.* abr: rád 2 Sam. 17, 6. V. 16. *d.* Ex. 3, 7. V. 25. Hús í austurlöndum eru flöt ofan sem lopt, og þar ganga menn og sitja sér til skémtunar. Devt. 22, 8. Jós. 2, 6. 8. Dóm. 9, 51. 16, 27. og vídar.

26. Og þeir risu snemma; og það skédi þá
morgunroðinn rann upp, að Samúel kalladi
Sál upp á þakið og mælti: far nú á stað, að
eg fylgi þér. Og Sál stóð upp og þeir geingu
báðir, hann og Samúel, eptir strætinu, 27. þeir
geingu eptir því allt til enda staðarins; þá
mælti Samúel við Sál: seigðu sveininum að
hann fari á undan okkur; (og hann fór á
undan þeim) en stattu nú við, að eg láti þig
heyra Guðs orð.

## 10. Kapítuli.

Sál er smurður og tekinn til Kóngs.

1. Þá tók Samúel olíuflösku og hellti yfir
hans höfuð og kysti hann og mælti: sjá! Drott-
inn smyr þig fursta yfir sína eign a). 2. Þeg-
ar þú geingur nú frá mér muntu hitta tvo menn
hjá Rakels gröf b) við landamerkin milli Benja-
mín og Selsa, þeir munu segja þér: ösnurnar eru
fundnar sem þú gékkst að leita að, og sjá! fað-
ir þinn hefir eingan gaum géfið ösnunum, og
er hræddur um ykkur og segir: hvað skal eg
gjöra viðvíkjandi syni mínum? 3. og þá þú
ert geinginn leingra þaðan og kémur til eikar-
innar Tabor, hitta þig þar þrír menn, sem
gánga upp til Guðs í Betel; einn þeirra ber
þrjú kið, annar ber þrjá brauðhleifa og sá þriðji
ber vínbrúsa. 4. Þeir spyrja hvörnig þér vegni c)
og géfa þér tvö brauð, þigg þú þau af þeim.
5. Eptir það muntu koma til Gíbea = Elohim
(Guðs hæðar) hvar verðir d) Filisteanna standa,
og þegar þú kémur þar til staðarins, svo mætir
þú hóp Spámanna er koma niður af hæðinni,
á undan þeim (fara) hörpur, trumbur, flautur
og hljóðpípur, og þeir spá (spila á þessi hljóð-
færi). 6. Guðs Andi mun koma yfir þig og
þú munt spá með þeim, og munt verða annar
maður. 7. Og ef að þessi teikn mæta þér, þá
gjör, hvað sem kémur þér fyrir hönd e); því
Guð er með þér; 8. og far þú nú á undan
mér til Gilgal, og sjá! eg vil koma þángað til
þín, til að frambera brennifórn og þakkarfórn;
sjö daga skaltu bíða, þángað til eg kém, þá
skal eg kunngjöra þér hvað þú skalt gjöra.

9. Og það skédi, þá hann snéri sínu baki
til að gánga burt frá Samúel, þá umbreytti
Guð hans hjarta, og öll þessi teikn komu fram
þann sama dag. 10. Og sem þeir komu það-
an til Gíbea, sjá! þá mætti þeim Spámanna
hópur, og Guðs Andi kom yfir hann f), og
hann spáði meðal þeirra. 11. Og það skédi,
þegar allir, sem höfðu þekkt hann áður, sáu, að
hann spáði með Spámönnunum, svo sagði fólk-
ið, einn til annars: hvað er þá skéð syni Kís?
er og Sál meðal Spámannanna g)? 12. Og
einn tók til orða og mælti: og hvör er þeirra
faðir? því er það orðið máltak: er Sál og
meðal Spámannanna? 13. Og hann hætti að
spá og kom uppá hæðina, 14. þá mælti Sáls
föðurbróðir til hans og hans sveins: hvört
geingu þið? og hann sagði: að leita að ösn-
unum; og þegar við sáum að þær vóru hvörgi,
svo geingum við til Samúels. 15. Og föð-
urbróðir Sáls mælti: láttu mig vita hvað Sa-
múel sagði? 16. Og Sál sagði við föðurbróð-
ur sinn: hann lét okkur vita að ösnurnar væru
fundnar. En það orð sem Samúel hafði tal-
að um Konúngdóminn, sagði hann honum ekki.

17. Og Samúel kalladi fólkið til Drottins í
Mispa. 18. Og hann talaði til Israels þann-
ig: svo segir Drottinn, Israels Guð: eg hefi
leidt Israel út af Egyptalandi, og eg frelsaði
yður af hendi Egyptskra, og af hendi allra
þeirra Kóngsríkja sem undirþryktu yður; 19.
en þér útskúfið í dag yðar Guði, sem hefir
hjálpað yður úr allri yðar neyð og þraung, og

V. 1. *a.* Kap. 15, 1. V. 2. *b.* Gen. 35, 19. V. 4. *c.* Gen. 43, 26. V. 5. *d.* Eða Setuliðs, Kap. 13, 3. 4.
og víðar. V. 7. *e.* Dóm. 9, 33. V. 10. *f.* Kap. 16, 13. V. 11. *g.* Kap. 19, 24.

segid til hans: Konúng skaltú yfir oss setja.
En komid nú fram fyrir Drottinn eptir ydar ætt-
kvíslum og kynþáttum (flokkum). 20. Og svo
lét Samúel allar Israels ættkvíslir framgánga;
þá hittist Benjamíns ættkvísl. 21. Og hann
lét Benjamíns ættkvísl gánga fram eptir henn-
ar kynþáttum; þá hittist á a) Matri kynþátt
og Sál sonur Kis var sá er hittist á og þeir
leitudu hans; en hann fannst ekki. 22. Þá
spurdu þeir Drottinn aptur: hvørt nokkur mad-
ur ætti enn nú ad koma þángad? og Drottinn
sagdi: sjá! hann er falinn hjá áhøldunum b).
23. Þá hlupu þeir þángad og sóktu hann, og
hann gékk fram medal fólksins og var høfdi
hærri enn allir adrir c). 24. Og Samúel sagdi
til alls fólksins: sjáid þér hann sem Drottinn
hefir útvalid; því einginn er sem hann medal alls
fólksins. Þá æpti allt fólkid upp og mælti:
Kóngurinn lifi d)! 25. og Samúel sagdi fólkinu
háttu Konúngdómsins e) og skrifadi þad í bók
og lagdi nidur hjá Drottni f.) Og Samúel
lét allt fólkid frá sér, hvørn einn heim til sín.
26. Og Sál gékk og heim til sín til Gíbea
og skari fór med honum af þeim, hvørra hjarta
Gud hafdi hrært. 27. En einkisverdir umm-
renníngar g) søgdu: hvad mun þessi hjálpa
oss? og þeir forsmádu hann og færdu hon-
um eingar gáfur; og hann lét sem hann vissi
(heyrdi) þad ekki.

## 11. Kápituli.

Sál vinnur sigur á Ammonítum.

1. Og Ammonítinn Nahas dróg út og
setti herbúdir sínar gagnvart Jabes í Gílead.
Og allir menn í Jabes søgdu vid Nahas:
gjørdu sáttmála vid oss, svo viljum vér þjóna
þér. 2. Og Nahas Ammoníti sagdi vid þá:
med þeim kostum vil eg gjøra sáttmála vid
ydur, ad eg stíngi út á ydur øllum hid hægra
auga, og med því móti gjøri øllum Israel
hádúng. 3. Og þeir eldstu í Jabes søgdu vid
hann: géf oss sjø daga frest til þess vér send-
um bod um allt Israels land; og sé einginn
sem bjargar oss, svo skulum vér gánga út til
þín. 4. Og svo komu sendibodarnir til Gíb-
ea Sáls og tøludu þessi ord í áheyrn fólksins.
Þá hóf allt fólkid upp sína raust og grét.
5. Og sjá! Sál kom á eptir akneytum af
akri. Og Sál mælti: hvad geingur ad fólk-
inu ad þad grætur? og þeir søgdu honum
ord mannanna frá Jabes. 6. Þá kom Guds
Andi yfir Sál h), er hann heyrdi þessi ord,
og hans reidi upptendradist mikillega. 7. Og
hann tók tvo uxa og britjadi þá og sendi stykk-
in um Israels land med sendibodum og sagdi:
hvør sem ei leggur á stad med Sál og med
Samúel, þess manns naut skal þannig med
fara. Þá kom ótti Drottins yfir fólkid og
þeir fóru út sem einn madur. 8. Og hann
kannadi lidid í Besek, og þad var, synir Isra-
els, þrjú hundrud þúsund, og menn af Júda
þrjátýgi þúsund. 9. Og þeir søgdu vid sendi-
mennina sem komid høfdu: segid svo mønnun-
í Jabes í Gílead: á morgun þegar sólin skín
heitt, skulud þér fá frelsun. Og sendimenn-
irnir komu og søgdu þetta mønnunum í Jabes,
og urdu þeir gladir. 10. Og mennirnir í
Jabes søgdu (til sínna óvina): á morgun vil-
jum vér útgánga til ydar, og þér skulud gjøra
vid oss hvad ydur gott sýnist. 11. Og þad
skédi morguninn eptir, ad Sál skipti lidinu í
þrjá flokka, og þeir brutust inn í herbúdirnar

---

V. 21. *a.* Jós. 7, 14. 17. meiníngin: var útvalin af Drottni eptir hlutfalli. V. 22. *b.* adr: farángurnum eda fans-inum. V. 23. c. Kap. 9, 2. hebr: hærri enn allir menn frá øxlum, og þad uppeptir. V. 24. *d.* 1 Kóng. 1, 25. 39. 2 Kóng. 11, 12. V. 25. *e.* Kap. 8, 11. Devt. 17, 16. fl. *f.* þ. e. Sáttmálsørkinni. V. 27. *g.* hebr: Belials synir. V. 6. *h.* Kap. 10, 10. Dóm. 14, 6.

um morgun-vaktar tímann, og ráku á flótta (felldu) Ammonítana, allt til þess heita tíma dagsins, (middegis) og þeim eptirordnu var tvístrad, og þar voru ekki tveir á medal þeirra saman. 12. Þá sagdi fólkid vid Samúel: hvørjir eru þeir sem søgdu: skyldi Sál drottna yfir oss? framseljid þá menn, vér skulum drepa þá! 13. En Sál mælti: eingann mann skal deyda á þessum degi, því í dag hefir Drottinn gjørt mikla frelsun í Israel a). 14. Og Samúel sagdi vid fólkid: komid, vér skulum fara til Gilgal og þar á ný stadfesta (endurnýa) Konúngdóminn. 15. Þá fór allt fólkid til Gilgal og gjørdi Sál þar ad Konúngi b) fyrir Drottni í Gilgal, og þeir færdu þar Drottni þakkarfórn; og Sál og allir menn af Israel glöddu sig þar rækilega.

## 12. Kapítuli.

Samúels ræda til fólksins.

1. Og Samúel taladi til alls Israels: sjá! eg hefi hlýdt ydar raust í øllu sem þér hafid til mín talad, og sett yfir ydur Konúng. 2. Og sjá nú! þarna er Kóngurinn c). En eg er ordinn gamall og grár og synir mínir eru á medal ydar og eg hefi geingid fyrir ydar augliti frá únga aldri allt til þessa dags. 3. Hér er eg, vitnid móti mér fyrir Drottni og hans Smurda! hvørs uxa hefi eg tekid, og hvørs asna hefi eg tekid, og hvørjum hefi eg gjørt órétt og hvørjum ofbeldi, og af hvørs hendi hefi eg tekid vid gáfum (mútum) og læst aptur mínum augum þess vegna? sé svo, skal eg ydur þad aptur gjalda. 4. Og þeir mæltu: eingann órétt og ekkért ofbeldi hefir þú haft í frammi vid oss, og ekkért hefir þú af nokkurs manns hendi tekid. 5. Og hann sagdi til þeirra: Drottinn sé vitni móti ydur, og vitni sé hans Smurdi á þessum degi, ad þér hafid ekkért fundid í minni hendi. Og fólkid ansadi: veri þeir vitni.

6. Og Samúel sagdi til fólksins: Já, (vitni sé) Drottinn, sá sem (út) gjørdi Móses og Aron, og sem flutti ydar fedur úr Egyptalandi! 7. Og gángid nú fram ad eg færi søk vid ydur frammi fyrir Drottni um alla þá velgjørnínga Drottins, sem hann hefir audsýnt ydur og ydar fedrum. 8. Þegar Jakob var kominn til Egyptalands og ydar fedur hrópudu til Drottins, þá sendi Drottinn Móses og Aron; þeir leiddu ydar fedur út af Egyptalandi og gáfu ydur bústad í þessu landi. 9. En þeir gleymdu Drottni sínum Gudi og hann seldi þá í hønd Sissera hershøfdíngjans af Hasor d), og í hønd Filisteanna og í hønd Móabs Konúngs sem stríddu móti þeim. 10. Þá hrópudu þeir til Drottins og søgdu: vér høfum syndgad e), ad vér yfirgáfum Drottinn og þjónudum Baal og Astarot; og frelsa oss nú af hendi vorra óvina, svo viljum vér þjóna þér. 11. Þá sendi Drottinn Jerúbaal f) og Bedan g) og Jefta h) og Samúel i) og frelsadi ydur af hendi ydar óvina, svo þér bjuggud óhulltir. 12. En er þér sáud ad Nahas, Kóngur Ammons sona, kom móti ydur, svo søgdud þér vid mig: nei! heldur skal Konúngur drottna yfir oss, þó var Drottinn ydar Gud ydar Konúngur. 13. Og siáid nú! þarna er Kóngurinn sem þér hafid valid, sem þér hafid heimt, sjá! Drottinn hefir sett yfir ydur Konúng. 14. Ef þér óttist Drottinn og þjónid honum og heyrid hans raust og þverskallist ekki vid Drottins skipanir, og hlýdid, bædi þér og ydar Konúngur, sem yfir ydur ríkir,

---

V. 13. *a.* Kap. 14, 45. V. 15. *b.* Kap. 12, 1. V. 2. *c.* Hebr. Kóngurinn geingur fyrir ydar augliti. V. 3 *d.* Kap. 8, 3. V. 9. *e.* Dóm. 4, 2. V. 10 *f.* Kap. 7, 6. Dóm. 10, 10. 15. V. 11. *g.* Dóm. 6, 14. *h.* Þ. e. Jair ellegar Samson af Dans ætt. Dóm. 10, 3. 1 Kron. 7, 17. *i.* Dóm. 11, 2. 29. *k,* 1 Sam. 7, 10.

Drottni ydar Gudi (þá er) hann med ydur.
15. En ef þér hlýdid ekki raustinni Drottins
og þverskallist vid Drottins skipanir, svo mun
hønd Drottins vera á móti ydur, eins og á
móti ydar fedrum. 16. En komid nú híngad
og sjáid þann mikla hlut sem Drottinn gjørir
fyrir ydar augum. 17. Er nú ekki hveiti upp=
skéra? Eg kalla til Drottins, og hann mun
senda reidarsløg og regn; kannist þá vid og
sjáid, ad þér hafid illa gjørt fyrir Drottni,
ad beidast Konúngs. 18. Og svo kalladi
Samúel til Drottins, og Drottinn sendi reid=
arsløg og regn þann sama dag, þá vard allt
fólkid skélkad fyrir Drottni og fyrir Samúel.

19. Og allt fólkid sagdi til Samúels: bid
til Drottins a) fyrir þínum þrælum, til þíns
Guds, ad vér ekki deyum, því vér høfum bætt
þeirri vondsku ofaná allar vorar syndir, ad
vér høfum beidst Konúngs. 20. Og Samú=
el sagdi til fólksins: óttist ekki! þér hafid ad=
hafst allt þetta illa; víkid ad eins ekki frá
Drottni b), og þjónid Drottni med øllu ydar
hjarta, 21. víkid ekki, snúid ydur ekki til þeirra
fánýtu afguda, sem hvørki hjálpa né frelsa;
því ónýtir (ekkért) eru þeir c). 22. Því
Drottinn mun ekki yfirgéfa sitt fólk vegna síns
mikla nafns, því Drottni hefir þókknast ad
gjøra ydur ad sínu fólki. 23. Og fjærri sé
mér þad ad syndga móti Drottni, ad eg skyldi
afláta ad bidja fyrir ydur, og eg vil kénna
ydur þann góda og rétta veg. 24. Óttist all=
eina Drottinn, og þjónid honum med øllu ydar
hjarta dyggilega; því sjáid, hvørsu mikid hann
hefir vid ydur gjørt. 25. En ef þér breytid
illa, svo verdur bædi ydur og ydar Kóngi í
burtu kippt.

## 13. Kapituli.

Afreksverk Jónatans og Sáls.

1. Sál hafdi nú verid 1 ár Konúngur,
og 2að árid sem hann ríkti yfir Israel, 2.
valdi Sál sér þrjú þúsund manns af Israel,
og hjá Sál voru tvø þúsund í Mikmas og á
Betels fjøllum, og þúsund voru hjá Jónatan í
Gíbea Benjamín; og þad annad af fólkinu lét
hann fara, hvørn til síns tjalds d). 3. Og Jón=
atan rak burt setulid Filisteanna í Gíbea;
þad heyrdu Filistearnir. Og Sál lét blása í
Básúnur um allt landid, og sagdi þad skulu
Ebreskir heyra! 4. Og allur Israel heyrdi
hvørsu menn søgdu: Sál hefir rekid burt setu=
lid Filisteanna, og Filisteum er illa vid Isra=
el e), og fólkid var samankallad til Sáls í
Gilgal. 5. En Filistearnir samansøfnudust til
ad strída vid Israel, 30 þúsund vagnar og 6
þúsund reidmenn og fólk eins margt og sandur
á sjáfarstrønd f), og þeir løgdu af stad, og
settu herbúdirnar í Mikmas fyrir austan Bet=
Aven. 6. Og Israels menn sáu ad þeir voru
í neyd, því ad fólkinu þreyngdi; þá fól fólkid
sig í hellrum og í þyrni=runnum og í giljum og
í turnum og í grifjum. 7. Og Ebreskir fóru
yfir Jórdan í landid Gad og Gílead, en Sál var
enn í Gilgal og allt fólkid fylgdi honum skélkad.

8. Og hann beid sjø daga til ákvedins tíma,
sem Samúel (hafdi ákvedid) en Samúel kom
ekki til Gilgal, og fólkid dreifdist burt frá hon=
um. 9. Þá sagdi Sál: færid mér híngad
brennifórn og þakkarfórn! og hann offradi
brennifórn. 10. Og er hann hafdi endad off=
ur brennifórnarinnar, sjá! þá kom Samúel,
og Sál gékk á móti honum og heilsadi honum.
11. Og Samúel mælti: hvad hefir þú gjørt?
og Sál sagdi: þegar eg sá ad fólkid hljóp frá

V. 19. *a.* Ex. 9, 28. V. 20. *b.* Devt. 17, 11. V. 21. *c.* Devt 32, 37. 38. Dóm. 10, 14. V. 2. *d.* Kap. 8, 22. V. 4. *e.* Heb. og Israel luktar illa hjá Filisteum. Devt. 34, 30. Ex. 5, 21. 1 Sam. 27, 12. V. 5. *f.* Jós. 11, 4. Dóm. 7, 12.

mér, og þú komst ekki á tilteknum tíma, og ad
Filistear voru komnir til Mikmas; 12. svo
sagdi eg: nú munu Filistear koma til mín til
Gilgal, og eg hefi ekki (ennú) bedid fyrir aug-
liti Drottins; því dirfdist eg ad offra brennifórn.
13. Þá sagdi Samúel til Sál: þú hefir breytt
heimskulega, hefir ekki gád ad bodi Drottins
þíns Guds, sem hann baud þér; því Drott-
inn hefdi nú stadfest þinn Konúngdóm yfir
Ísrael ad eilífu; 14. en nú mun þitt Kon-
úngdæmi ekki verda stadfast. Drottinn hefir
leitad sér ad ødrum manni eptir sínu sinni, og
hefir sett hann fursta yfir sitt fólk; því þú
hefir ekki gjætt þess sem Drottinn baud. 15.
Og svo tók Samúel sig upp og gékk frá Gil-
gal til Gíbea Benjamín. Og Sál kannadi lid-
id sem hjá honum var, hérumbil 6 hundr-
ud manns.

16. En Sál og Jónatan hans son og fólkid
sem hjá þeim var, tjaldadi í Gíbea-Benjamín,
og Filistear høfdu herbúdir í Mikmas. 17.
Og frá herbúdum Filistea lagdi óvígur her í
þremur flokkum; einn flokkurinn stefndi til Ofra
í landid Sual, 18. annar flokkurinn stefndi til
Bethoron, og hinn þridji fór landamerkja veginn
sem liggur fyrir ofan dalinn Seboim út til
eydimerkurinnar. 19. En einginn smidur var
í øllu Ísraels landi, því Filistear hugsudu:
ad Ebreskir ei skyldu gjøra sér sverd eda spjót a).
20. Og allur Ísrael fór til Filistea, sérhvør
til ad hvessa sitt plógjárn, pál, øxi og spada.
21. Þegar nefnilega ad sljófgadist eggin á
spadanum, pálnum, forknum og øxinni, og til
ad rétta oddinn. 22. Og þad bar svo undir,
á orrustu deginum, ad þá fannst hvørki sverd
né spjót í hendi alls fólksins, sem var med
Sál og Jónatan, og einasta fannst þetta hjá
Sál og Jónatan syni hans. 23. Og einn
flokkur af Filisteum fór út veginn frá Mikmas.

## 14. Kapítuli.

Stríd vid Filistea.

1. Og þad skédi einhvørn daginn, ad Jón-
atan sonur Sáls sagdi vid sinn skjaldsvein (sem
bar hans vopn); kom þú! og látum oss gánga
yfir til vardmanna Filisteanna sem eru gagn-
vart; en hann lét ekki fødur sinn vita af. 2.
En Sál hafdi sitt tjald vid endann á Gíbea,
undir Granat trénu í Migron, og þad fólk
sem hann hafdi hjá sér, var hérumbil 6 hundr-
ud manns. 3. (En Ahia, Ahitobs son, og
bródir Ikabods b) sonar Pineas, sonar Elí
Drottins prests í Síló, bar høkulinn) og fólk-
id vissi ekki ad Jónatan var burt genginn.
4. En í milli gatnanna sem Jónatan vildi yf-
irum fara til vardmanna Filisteanna, var ham-
ar á þessa høndina og hamar á hina høndina;
annar hét Boses, en hinn Sene. 5. Annar
hamarinn ad nordanverdu var sem stólpi, gagn-
vart Mikmas, og annar ad sunnan til á móts
vid Gíbea. 6. Og Jónatan sagdi til sveinsins
sem bar hans hertýgi: kom, og látum oss fara
yfir til vardmanna (Setulids) hinna óumskornu;
máské Drottinn láti oss eitthvad framkvæma;
því fyrir Drottinn er eingin hindrun ad veita
sigur med mørgum eda fáum c). 7. Og
skjaldsveinninn mælti: gjør þú allt sem þér býr
í brjósti, far þú, sjá! eg er med þér, eptir
þinni vild. 8. Og Jónatan mælti: þá vér
førum yfir til mannanna, og viljum láta þá
sjá oss. 9. Ef þeir þá segja til okkar: bídid
þángad til vér komum til ydar, þá støndum vér
kyrrir á vorum stad, og førum ekki til þeirra;
10. En ef þeir segja svo: komid híngad upp
til vor, þá gaungum vér upp; því þá hefir
Drottinn géfid þá í vora hønd og þad sé okk-
ur til merkis. 11. Og sídan létu þeir bádir
vardmenn Filisteanna sjá sig, og Filistearnir
søgdu: sjá! Ebreskir koma fram úr holum sín-

V. 19. a. Dóm. 5, 8. V. 3. b. Kap. 4, 21. V. 6. c. Dóm 7, 7. 2 Kron. 14, 11. 1 Makk. 3, 18.

um, sem þeir voru skridnir í. 12. Og varð-mennirnir kölludu til Jónatans og hans skjaldsveins og sögdu: komid híngad upp til vor, vér skulum segja ykkur tídindi! þá sagdi Jónatan vid sinn skjaldsvein: kom þú nú eptir mér, því Drottinn hefir gefid þá í Israels hendur. 13. Og Jónatan klifradist upp á höndum og fótum, og skjaldsveinn hans eptir honum; og þeir féllu fyrir Jónatan, og hans skjaldsveinn lagdi þá ad velli á eptir honum. 14. Og þeir sem féllu, sem Jónatan og hans skjaldsveinn lögdu fyrst ad velli, hérumbil 20 manns, lágu svo sem á hálfri reim lítils akurs. 15. Og ótta sló yfir herbúdirnar á þessum stad, og yfir allt fólkid; vardmennirnir og herinn skélkudust og landid nötradi, og þad vard ad Guds skélfíngu.

16. Þá litudust um vardmenn Sáls í Gíbea Benjamín, og sjá! múgurinn tvístradist og hljóp, sinn í hvörja áttina. 17. Og Sál sagdi til fólksins sem hjá honum var: teljid þó, og sjáid, hvör frá oss er geinginn. Og þeir töldu, og sjá! þar var þá ekki Jónatan og hans skjaldsveinn. 18. Þá mælti Sál vid Ahia: kom þú med Guds örk (því Guds örk var á þeim degi hjá Israels sonum). 19. Og þad skédi medan Sál taladi vid prestinn, vard isinn í herbúdum Filisteanna meiri og meiri; þá mælti Sál vid prestinn: tak þína hönd til baka a)! 20. Og Sál og allt fólkid, sem med honum var safnadist saman, og fór í orustuna, og sjá! sverd hins eina var móti hinum ödrum, mjög mikid trubl b); 21. en Ebreskir voru hjá Filisteum sem ádur, þeir sem farid höfdu med þeim allt um kríng í herbúdirnar; þeir geingu líka í lid med Israel sem var med Sál og Jónatan. 22. Og allir menn af Israel, sem höfdu laumast í felur á Efraims fjalli, heyrdu ad Filistear flýdu, þeir fóru og eptir þeim til orustu. 23. Og svo gaf Drottinn Israel sigur á þeim sama degi, og strídid þokadist fram hjá Betaven. 24. En Israels menn tóku nærri sér þann sama dag; þá eggjadi Sál fólkid, og mælti: bölvadur sé sá madur sem etur braud allt til kvölds, þángad til eg hefi hefnst á mínum fjandmönnum; og einginn af fólkinu smakkadi mat. 25. Og allt fólkid kom í skóginn, þá var hunáng á jördunni, 26. og fólkid kom í skóginn, og sjá! þar flaut hunáng; en einginn bar hönd ad munni, því fólkid hræddist eidinn. 27. En Jónatan hafdi ei heyrt hvörsu hans fadir hafdi eggjad fólkid, og rétti út brodd þess stafs er hann hafdi í hendi, og dífdi honum í hunángs seiminn og bar hönd sína ad munninum og hans augu urdu lífleg. 28. Þá tók einn af fólkinu til orda og mælti: fadir þinn hefir eggjad fólkid og mælt: bölvadur veri hvör sá sem í dag etur braud; og svo örmagnast fólkid. 29. Og Jónatan mælti: fadir minn leidir landid í fordjörfun! sjáid nú, hvörsu augu mín eru lífleg, af því eg smakkadi ad eins á þessu hunángi. 30. Betur fólkid hefdi nú í dag etid af herfángi sinna fjandmanna sem þad hefir fundid; því nú hefir mannfallid ekki ordid stórt á medal Filisteanna. 31. Og á þeim sama degi ráku þeir Filisteana frá Mikmas, allt til Ajalon. Og fólkid var mjög þreytt.

32. Og fólkid fleigdi sér yfir herfángid og þeir tóku saudi og kýr og kálfa og slátrudu á jördu, og fólkid át med blódi (blódugt c). 33. Og menn sögdu Sál frá og mæltu: sjá! fólkid syndgar móti Drottni, því þad etur med blódi. Og hann sagdi: þér hagid ydur ílla! veltid strax til mín stórum steini. 34. Og Sál mælti: dreifid ydur út medal fólksins og segid þeim: flytjid til mín, hvör og einn sinn saud,

V. 19. *a.* Eda: láttu svona vera. V. 20. *b.* Þ. e. I herbúdum Filisteanna. Dóm. 7, 22. 1 Kron. 20, 22. 23.
V. 32. *c.* Lev. 3, 17. 7, 26.

og slátrid honum hér og etid, og syndgid ekki móti Drottni med því ad eta med blódi. Þá kom allt fólkid, hvør og einn med sinn uxa um nóttina, og þeir slátrudu þar. 35. Og Sál bygdi Drottni altari. Þetta altari var þad fyrsta sem hann bygdi Drottni.

36. Og Sál mælti: látum oss leggja af stad í nótt eptir Filisteum og ræna þá þar til dagur rennur, og láta eingan þeirra eptir verda. Og þeir søgdu: gjør þú allt sem þér gott þykir! og presturinn mælti: látum oss hér spyrja Gud (fara til Guds). 37. Og Sál spurdi Gud: skal eg fara eptir Filisteum? munt þu gefa þá í hønd Israels? en hann svaradi honum ekki á þeim sama degi. 38. Þá mælti Sál: gángid híngad allir fólksins høfdíngjar, og grenslist eptir og sjáid hvørn veg þessi synd er skéd í dag, 39. því svo sannarlega sem Drottinn lifir, er gaf Israel sigur, þó hún lendti á syni mínum Jónatan, svo skal hann deya, og einginn svaradi honum af øllu fólkinu. 40. Og hann taladi til alls Israels: verid þér ødrumeigin, og eg og Jónatan sonur minn viljum vera hinumeigin; og fólkid sagdi til Sáls: gjør þú hvad þér gott sýnist. 41. Og Sál sagdi til Drottins: Israels Gud! gef sannleika! þá hitti (hlutfallid a) Jónatan og Sál en fólkid slapp frí. 42. Þá mælti Sál: kastid (hlut) um mig og Jónatan son minn! þá vard Jónatan fyrir (hlutfallinu). 43. Og Sál sagdi til Jónatans: segdu mér, hvad hefir þú gjørt? þá sagdi Jónatan honum þad og mælti: smakkad hefi eg med broddi staffsins í minni hendi lítid eitt á hunángi, sjá! hér er eg, á eg ad deya? 44. Þá mælti Sál: gjøri Gud mér svo, og enn framar b): deya verdur þú Jónatan! 45. En fólkid sagdi til Sál: á Jónatan ad deya sem hefir feingid þenna mikla sigur í Israel? fjærri sé þad! svo sannarlega, sem Drottinn lifir skal ekki eitt hans høfud hár falla til jardar c), því med Gudi hefir hann unnid í dag. Svo frelsadi fólkid Jónatan ad hann ekki dó d). 46. Og Sál slepti því ad fara eptir Filisteum, og Filistearnir fóru á sinn stad.

47. En þá Sál var ordinn Konúngur yfir Israel átti hann stríd vid alla sína fjandmenn allt um kríng, vid Móab og vid Ammonssonu, og vid Edom og vid Kóngana af Soba, og vid Filisteana; og hvørt sem hann snéri sér vann hann sigur. 48. Og hann sýndi hreysti, og sigradi Amalek og frelsadi Israel af hendi Filisteanna.

49. Og synir Sáls vóru: Jónatan og Jisvi e) og Malkisua. Og nøfn hans tveggja dætra: nafn þeirrar frumbornu Merab og nafn þeirrar ýngri Mikal. 50. Og nafn konu Sáls: Abinoam, dóttir Ahimaas. Og nafn hans hershøfdíngja: Abner, sonur Ners, fødurbródur Sáls. 51. Því Kis, fadir Sáls, og Ner fadir Abners, vóru synir Abíels. 52. Og strídid vid Filisteana var ákaflegt, svo leingi sem Sál lifdi; og sæi Sál einhvørn sterkann mann, og einhvørn hugadann mann, tók hann þann sama til sín.

## 15. Kapítuli.

Sáls óhlýdni.

1. Og Samúel sagdi vid Sál: Drottinn sendi mig til ad smyrja þig til Kóngs yfir sitt fólk yfir Israel; og hlýd nú ordum Drottins. 2. Svo segir Drottinn allsherjar: eg hefi sjed þad sem Amalekítar f) hafa gjørt Israel, hvørsu þeir settu sig í veg fyrir Israel þá hann fór útaf Egyptalandi. 3. Legg þú nú af stad, og slá Amalek, og eydilegg allt sem honum tilheyr-

V. 41. *a.* Jós. 7, 16. Jon. 1, 7. V. 44. *b.* 1 Kóng. 19, 2. 2 Kóng. 6, 31. V. 45. *c.* 2 Sam. 14, 11. 1 Kóng. 1, 52. Lúc. 21, 18. V. 45. *d.* Eda: heldt lifi. V. 49. *e.* Nefnist Abinadab Kap. 31, 2. V. 2. *f.* Ex. 17, 8. Núm. 24, 20. Devt. 25, 17.

ir, og þú skalt ekki hlífa honum, og drep þú
svo mann sem konu, svo bárn sem brjóstmylk-
íng, svo uxa sem sauð, svo úlfalda sem asna.
4. Þá kalladi Sál fólkid, og kannadi herinn
í Telaim, 2 hundrud þúsund manns af fótgaungu-
lidi, og 10 þúsund manns af Júda.

5. Og Sál kom allt ad stad Amaleks og setti
launsátur a) í dalinn. 6. Og Sál sagdi til
Kenitanna: farid, víkid, leggid burt úr flokki
Amalekíta, ad eg ekki eydileggi ydur med þeim,
því þér hafid sýnt Israelssonum gódsemi þegar
þeir fóru úr Egyptalandi. Og svo viku Kenít-
ar úr lidi Amaleks. 7. Og Sál hrakti Ama-
lek frá Hevíla allt til Súr, sem liggur gégnt
Egyptalandi. 8. Og hann tók Agag Kóng
Amalekíta lifandi, en eydilagdi allt fólkid med
sverds eggjum. 9. Og Sál og fólkid vægdi
Agag og þeim bestu saudum og nautum og því
sem gékk þeim næst, og lømbum og øllu sem
gott var, og þeir vildu ekki eydileggja þad; en
allt sem var lélegt og ónýtt þad eydiløgdu þeir.

10. Þá kom ord Drottins til Samúels og
sagdi: 11. mig ydrar þess ad eg gjørdi Sál ad
Konúngi, því hann hefir snúid sér frá mér og
ekki hlýdt mínum ordum og Samúel reiddist
og kalladi til Drottins alla nóttina. 12. Og
Samúel reis snemma ad hitta Sál um morgun-
inn. Og Samúeli var sagt: Sál er komin til
Karmel, og sjá! hann reisir sér minnismerki b),
og hefir svo snúid ferdinni þadan og er geing-
inn leingra, þ. e. til Gilgal. 13. Og er Sa-
múel kom til Sál, mælti Sál til hans: bless-
adur sért þú af Drottni c)! eg hefi gjørt fulln-
ustu Drottins ordi. 14. Og Samúel mælti:
hvada sauda jarmur er þá fyrir mínum eyrum,
og hvada nauta baul, sem eg heyri? 15. Og
Sál mælti: frá Amalekítum kom eg med þau, af
því ad fólkid hlífdi þeim bestu saudum og nautum
til ad offra þau Drottni þínum Gudi; en hid
annad høfum vér eydilagt. 16. Og Samúel
mælti til Sál: bíddu medan eg kunngjøri þér
þad, sem Gud hefir talad vid mig í nótt. Og
hann sagdi vid hann: tala þú!

17. Og Samúel mælti: er ekki svo, medan
þú varst lítill í þínum augum, svo varstu gjørd-
ur høfdíngi Israels ættkvísla og Drottinn smurdi
þig til Kóngs yfir Israel; 18. og Drottinn sendi
þig og sagdi: far þú og eydilegg syndarana, Ama-
lekíta, og berstu vid þá þángad til þú upprætir
þá; 19. en hvarfyrir hefir þú ekki hlýdt Drott-
ins rødd, og hefir kastad þér yfir herfángid og
gjørt illt í augum Drottins? 20. Og Sál mælti
til Samúels: eg hefi hlýdt rødd Drottins, og
hefi farid þann veg sem Drottinn sendi mig, og
hefi komid híngad med Agag Amalekíta Kóng,
og eydilagt Amalekítana. 21. En fólkid hefir
tekid af herfánginu saudi og naut, þad besta af
því bannfærda, til ad fórnfæra þad Drottni þín-
um Gudi í Gilgal. 22. Og Samúel mælti vid
Sál: hefir Drottinn lyst á brennifórn og slátur-
fórn eins og á hlýdni vid síg (Drottinn)? sjá!
hlýdni er betri enn offur; gaumgæfni betri enn
feiti hrútanna, 23. því þrjótska er galdraglæp-
ur og einþikkni afgudadýrkun, þessvegna fyrst
þú hefir burtsnarad Drottins ordi, svo hefir
hann burtsnarad þér, ad þú sért ekki framar
Konúngur d). 24. Og Sál sagdi til Samúels:
eg hefi syndgad, ad eg yfirtród Drottins bod og
þín ord; því eg óttadist fólkid og heyrdi þess
rødd. 25. Og fyrirgéf mér nú mína synd, og
snú þú nú vid med mér, ad eg tilbidji Drottinn.
26. Og Samúel sagdi vid Sál: eg sný ekki vid
med þér; þared þú hefir burtsnarad Drottins
ordi, svo mun Drottinn burtsnara þér ad þú
sért ekki framar Kóngur yfir Israel. 27. Og
svo snéri Samúel sér til ad fara af stad, þá

---

V. 5. *a.* Jós. 8, 2. Dóm. 20, 29. V. 7. 1 Mósb. 25, 18. V. 12. *b.* 2 Sam. 18, 18. Es. 56, 5 V. 13. *c.* Dóm. 17, 2. Rut. 3, 10. V. 23. *d.* Kap. 16, 1.

greip hann (Sál) í lafið á hans skikkju og reif
sundur. 28. Þá mælti Samúel til hans: í dag
hefir Drottinn rifið Konúngdóminn frá þér a)
og géfið hann ødrum sem er betri enn þú. 29.
Ekki lýgur heldur Israels athvarf, og ydrast
ekki, því hann er ekki madur að hann ydrist b)
30. Og hann (Sál) mælti: eg hefi syndgað!
heiðra mig samt í augsýn hinna eldstu af mínu
fólki, og frammi fyrir Israel; og snú nú vid
með mér, ad eg tilbiðji fyrir Drottni þínum
Gudi. 31. Þá snéri Samúel vid (og kom á)
eptir Sál, og Sál tilbad frammi fyrir Drottni.
32. Og Samúel mælti: færið mér Agag,
Amaleks Konúng, og Agag kom til hans kátur
og mælti: daudans beiskja er vissulega farin!
33. Og Samúel mælti: eins og þitt sverd hefir
gjørt konur barnlausar, svo sé þín móðir, kon=
um framar c), barnlaus! Og Samúel hjó Agag
í stikki fyrir Drottni í Gilgal. 34. Svo fór
Samúel til Rama og Sál fór heim í sitt hús í
Gíbea=Sáls. 35. Og Samúel sá ekki Sál upp
frá því til síns daudadags, því Samúel var sorg=
mæddur út af Sál, og Drottinn ydradi þess
ad hann hafði gjørt Sál Konúng yfir Israel.

## 16. Kapítuli.

Davíð er smurður til Kóngs og kémst í hyrd Sáls.

1. Og Drottinn sagði til Samúels: hvad
leingi ætlar þú ad vera sorgmæddur vegna Sáls,
þareð eg þó hefi útskúfað honum d), ad hann sé
ekki framar Kóngur yfir Israel? fyll þú horn
þitt með viðsmjør og legg þú af stað, eg sendi
þig til Isai Betlehemítans; því eg hefi medal
hans sona útsjeð mér Konúng. 2. Og Samúel
mælti: hvørnig gét eg farið þessa ferd? því
frétti Sál það, svo drepur hann mig. Og
Drottinn sagði: tak þú með þér kálf, og segðu:
eg kém til að færa Drottni fórn. 3. Og bjóð
þú Isai til fórnarmáltíðarinnar, og eg skal
láta þig vita hvað þú átt að gjøra, og þú skalt
smyrja mér þann sem eg mun segja þér. 4.
Og Samúel gjørði það sem Drottinn sagði og
kom til Betlehem. Þá komu þeir eldstu í stadn=
um með flýtir honum á móti og søgðu: boð=
ar þín koma gott (friðe). 5. Og hann mælti:
(já) gott (frið), eg kém til ad færa Drottni
fórn. Og hann helgaði Isaí og hans syni og
bauð þeim til fórnarmáltíðarinnar.
6. Og það skéði, þá þeir komu, að hann sá
Elíab, og hugsaði: vissulega er þessi fyrir
Drottni, hans smurði! 7. en Drottinn sagði til
Samúels: líttu ekki á hans skapnad eða hans
vøxt, því eg hefi honum útskúfað; eg lít ekki á
það sem menn líta á, því menn líta á augun f)
en Drottinn lítur á hjartað g). 8. Þá kallaði
Isaí á Abínadab, og lét hann gánga framhjá
Samúeli; og hann mælti: ekki hefir Drottinn
heldur kosið þenna. 9. Þá lét Isaí Sammi
framhjá gánga, og hann mælti: ekki hefir Drott=
inn útvalið þenna. 10. Og svo lét Isaí sjø syni
sína gánga framhjá frammi fyrir Samúeli. Þá
mælti Samúel við Isaí: Drottinn hefir ekki
útvalið þessa. 11. Og Samúel sagði til Isaí:
eru þetta allir sveinarnir? og hann mælti: enn
er sá ýngsti eptir, og sjá! hann gjætir sauða.
Og Samúel mælti: send þú eptir honum og
láttu hann koma, því vér setjumst ekki til borðs
fyrr enn hann kémur híngað. 12. Og svo
sendi hann, og lét hann koma, en hann var
rauður á hár h) og eygður vel og svip góður.
Og Drottinn sagði: stattú upp og smyr þenna,
því þessi er það. 13. Þa tók Samúel við=
smjørs hornið og smurði hann i) midt á með=
al hans bræðra. Og Drottins Andi kom yfir

---

V. 28. *a.* Kap. 28, 17. 1 Kóng. 11, 11. V. 29. *b.* Núm. 23, 19. V. 33. *c.* Adr. (medal kvenna). V. 1. *d.* Kap. 15, 23. V. 4. *e.* 2 Kóng. 9, 18. V. 7. *f.* Adr. það sem er fyrir augunum. *g.* Sálm. 7, 10. 17, 3. Jer. 11, 20. 17, 10. 20, 12. V. 12. *h.* Kap. 17, 42. Gen. 25, 25. V. 13. *i.* Sálm 89, 21.

Davíd upp frá þeim degi. Og Samúel tók
sig upp og fór til Rama a).
14. En Drottins Andi veik frá Sál, og vond-
ur andi frá Drottni ángradi hann. 15. Þá
søgdu þjónar Sáls vid hann: illur andi frá
Gudi ángrar þig. 16. Tali því, vor herra!
þínir þjónar standa frammi fyrir þér, þeir munu
leita upp mann sem kann hljódfærasláttb), og
þegar sá illi andi kémur yfir þig frá Gudi, þá
gétur hann spilad med sinni hendi, svo þér batni.
17. Og Sál sagdi til sinna þénara: finnid mér
mann sem vel kann á hljódfæri, og færid mér
hann. 18. Og einn af þénurunum svaradi og
mælti: sjá! eg hefi sjed einn af sonum Isai
Betlehemíta, sem kann á hljódfæri og er hraust-
ur kappi og strídsmadur, vel máli farinn og
vel vaxinn c), og Drottinn er med honum.
19. Þá gjørdi Sál sendimann til Isai og
sagdi: sendtú Davíd son þinn sem er hjá saud-
unum til mín. 20. Þá tók Isai asna med
braud og vín-belg og geithafur, og sendi til
Sál med Davíd syni sínum. 21. Og svo kom
Davíd til Sál og stód frammi fyrir honum og
gjørdist honum mjøg kjær og vard hans skjald-
sveinn. 22. Og Sál sendi til Isai og mælti:
láttu Davíd standa frammi fyrir mér, því hann
hefir fundid nád í mínum augum. 23. Og
þad skédi þegar Andi Drottins kom yfir Sál,
þá tók Davíd sitt hljódfæri og lék med sinni
hendi, þá vard Sál léttara og betra, og sá illi
andi veik frá honum.

## 17. Kapítuli.

Golíat er feldur af Davíd.

1. Og Filistear samandrógu her sinn til
stríds og samansøfnudust í Sokó, sem heyrir
til Júda og settu herbúdir milli Sokó og Aseka
hjá Efes-Dammim d). 2. Og Sál og Is-
raels menn, samansøfnudust og settu herbúdir
sínar í Eikidalnum og bjuggu sig út til stríds
móti Filisteunum. 3. En Filistear voru á hæd
nokkurri hinumegin, og Israel á annari hæd-
inni hérnamegin vid dalinn. 4. Þá gékk fram
úr herbúdum Filisteanna kappinn e) frá Gat
sem hét Golíat; hann var á hæd 6 álnir og
spønn. 5. En hann hafdi eir-hjálm á høfdi
sér, og spánga brinju var hann í; hún vóg vid
5 þúsund sikla af eiri. 6. Og hann hafdi
brinhosur á fótum, spjót f) úr eiri á herdum
sér. 7. Og hans spjóts skapt var sem vefjar
rifur g), og falurinn í hans spjóti vóg vid 6
hundrud sikla járns. Og hans skjaldsveinn gékk
á undan honum. 8. Og hann gékk fram og
kalladi til fylkínga Israels og mælti til þeirra:
því dragid þér út til ad strída? er eg ekki
Filistei og þér þrælar Sáls? veljid ydur mann
sem komi til mín híngad. 9. Ef ad hann
megnar ad berjast vid mig, og fellir mig, svo
viljum vér vera ydar þrælar; en ef eg sigra
hann, og felli hann, svo skulud þér vera vorir
þrælar og þjóna oss. 10. Og Filisteinn mælti:
eg hefi gjørt hádúng h) í dag Israels herfylk-
íngum! fáid til mann ad berjast vid mig!
11. Og Sál og allur Israel heyrdu þetta tal
Filisteans og skélkudust og urdu mjøg hræddir.
12. En Davíd var sonur Efratítans af
Betlehem Júda, sem hét Isai, og hann átti
8ta sonu, og madurinn var á Sáls døgum
gamall, kominn (til ára sinna) medal manna.
13. Og þrír synir Isaí, þeir eldri, fóru med
Sál í strídid; en nøfn hans þriggja sona sem í
strídid fóru, voru: Eliab sá frumborni, og sá
annar Abínadab og sá þridji Samma i). 14.
Og Davíd var sá ýngsti, og þeir þrír eldri

V. 13. *a.* Kap. 15, 34. V. 16. *b.* 2 Kóng. 3, 15. V. 18. *c.* Gen. 29, 17. V. 1. *d.* 1 Kron. 11, 13. V. 4. *e.* Adr. hólmgaungu-madurinn sbr. v. 23. V. 6. *f.* Edà késju. V. 7. *g.* 2 Sam. 21, 19. V. 10. *h.* 2 Kóng. 19, 4. 16. V. 13. *i.* Nefnist annars Simea 2 Sam. 13, 3.

høfdu farid med Sál. 15. En Davíd var stundum med Sál, en stundum gjætti hann sauda fødur síns í Betlehem. 16. Og svo gékk Filisteinn fram seint og snemma og baud sig fram (til bardaga) í 40 daga. 17. Þá sagdi Ísaí til Davíds sonar síns: tak þú handa brædrum þínum þetta Efa af steiktn korni, og þessi 10 braud, og færdu þetta fljótt þínum brædrum í herbúdirnar. 18. Og færdu þessar 10 sneidir af mjólkurosti høfudsmanninum yfir þúsund og findu brædur þína til þess ad vita hvørt þeim lídur vel, og kom frá þeim med jardteiknir a). 19. En Sál og þeir og allir Ísraelsmenn voru í Eikidalnum, í strídi vid Filisteana. 20. Þá reis Davíd snemma um morguninn og fékk saudina hyrdir nokkrum til geymslu, og tók þad sem Ísaí hafdi sagt og kom til vagnborgarinnar; en herinn, sem fór med fylktu lidi, æpti heróp. 21. Og Ísrael og Filistear settu fylkíngu gégnt fylkíngu. 22. Þá slepti Davíd því sem hann hafdi medferdis vid fylgdar mann sinn og hljóp í fylkínguna og kom og spurdi sína brædur hvørnig þeim lidi. 23. Og sem hann einmidt taladi vid þá, gékk fram kappinn b) Golíat Filisteinn frá Gat, úr fylkíngu Filisteanna, og taladi einmidt sømu ord, og Davíd hlýddi á. 24. Og allir menn af Ísrael, hopudu er þeir sáu manninn, flýdu fyrir honum og urdu mjøg hræddir. 25. Og Ísraels menn søgdu: hafid þér sjed þenna mann er framm geingur. Hann geingur fram til ad gjøra Ísrael hádúng. Og hvørn sem fellir hann, vill Kóngurinn audga miklum aud, og dóttur sína vill hann géfa honum, og húsi fødur hans vill hann géfa frelsi í Ísrael. 26. Og Davíd spurdi mennina sem hjá honum stódu og mælti: hvad fær sá madur sem fellir Filisteann þarna, og snýr hádúnginni frá Ísrael? því hvør er þessi Filistei, þessi óumskorni, ad hann gjørir hádúng herfylkíngu þess lifanda Guds. 27. Og fólkid taladi til hans þessum sømu ordum og mælti: þetta (sem vér høfum sagt) fær sá madur sem hann fellir. 28. Og Elíab hans eldsti bródir heyrdi hvad hann taladi vid mennina, og Elíabs reidi tendradist móti Davíd, og hann mælti: hví ertu híngad kominn og hvørjum hefir þú feingid til vøktunar á eydimørkinni þá fáu saudi? eg þekki þína ofdirfsku, og íllsku þíns hjarta; því til þess ad horfa á strídid ert þú híngad kominn. 29. Og Davíd mælti: hvad hefi eg nú gjørt c)? var þad ekki ord d)? 30. Og hann snéri sér frá honum og gékk til eins annars, og taladi þeim sømu ordum, og fólkid svaradi honum líkt þeim fyrri ordum. 31. Og nú heyrdu menn þau ord sem Davíd taladi, og søgdu Sál frá, og hann lét sækja hann. 32. Og Davíd sagdi vid Sál: einginn láti sér hugfallast hans vegna! þinn þjón vill fara og berjast vid þenna Filistea. 33. Og Sál sagdi til Davíds: þú ert ekki fær um ad fara móti þessum Filistea til ad berjast vid hann, því þú ert úngmenni, en hann er strídsmadur frá sinni barnæsku. 34. Og Davíd sagdi til Sáls: þinn þjón héldt saudum fødur síns á beit, þá kom ljón og bjørn og tóku einn saudinn af hjørdinni. 35. Og eg rann eptir honum og reif hann úr hans gini; og þá hann reisti sig á móti mér, greip eg í kampa hans og feldi hann og drap. 36. Bædi ljónid og líka bjørninn hefir þinn þjón fellt, og þessum Filistea, þessum óumskorna skal reida af eins og ødru hvørju þeirra e); því hann gjørir hádúng fylkíngum ens lifanda Guds. 37. Og Davíd mælti: Drottinn sem frelsadi mig af hendi ljónsins, og af hendi bjørnsins, hann mun frelsa mig af

V. 18. *a.* Nl. til vissu um, ad þú hafir fundid þá. V, 23. *b.* Sbr. v. 4. V. 29. *c.* Kap. 20, 1. 26, 18. *d.* mátti eg ekki tala þetta? V. 36. *e.* Þ. e. ljóninu og byrninum.

hendi þessa Filistea. 38. Og Sál mælti til Davíðs: far þú þá, Drottinn sé með þér. Og Sál færdi Davíð í sinn kyrtil, og setti eir hjálm á hans høfud og lét hann fara í brinju. 39. Og Davíð girdtist sínu sverdi yfir sinn kirtil, og fór ad gánga; því hann hafdi ekki reynt þad ádur. Þá sagdi Davíð við Sál: eg gét ekki geingid í þessu, því eg hefi aldrei reynt þad ádur. Og Davíð færdist úr þessu, 40. og tók sinn staf í sína hønd, og valdi sér 5 hála steina úr lækinum og lét þá í sína smala tøsku sem hann hafdi med sér, nefnilega í tøskuna, og med slaungu í hendi gékk hann á móti Filisteanum.

41. Og Filisteinn kom nær og nær Davíð, og skjaldsveinninn gékk á undan honum. 42. Og þá Filisteinn leit til og sá Davíð, forsmádi hann hann; því hann var úngmenni raudur (á hár) og frídur sýnum. 43. Filisteinn sagdi til Davíðs: er eg þá hundur a) ad þú kémur á móti mér med staf? og Filisteinn formælti Davíð vid sinn Gud. 44. Og Filisteinn mælti vid Davíð: kom þú til mín, svo eg gefi fuglum himins og dýrum merkurinnar (villu dýrum) þitt hold! 45. Og Davíð sagdi til Filisteans: þú kémur móti mér med sverd og spjót og lensu; en eg kém á móti þér í nafni Drottins allsherjar, Guds Israels fylkínga, sem þú hefir gjørt hádúng ad. 46. Á þessum degi mun Drottinn géfa þig í mína hønd, og eg mun leggja þig vid velli, og høggva af þér høfudid, og lík Filisteanna hers mun eg géfa á þessum degi fuglum himins og villudýrum jardar, og øll jørdin skal vidurkénna ad Israel hefir Gud. 47. Og allur þessi safnadur skal taka eptir því, ad Drottinn veitir sigur hvørki med sverdi né spjóti; því strídid er Drottins og hann géfur ydur í vorar hendur.

48. Og þad skédi þá Filisteinn tók sig til og kom á móti og nálgadist Davíð, ad Davíð flýtti sér og hljóp ad fylkíngunni móti Filisteanum, 49. og hann stakk hendi sinni í tøskuna, og tók úr henni stein, og slángradi, og hæfdi Filisteans enni, og steininn festi í hans enni og hann féll á sitt andlit til jardar. 50. Og svo yfirvann Davíð Filisteann med slaungu og med steini, og feldi hann og drap hann. En Davíð hafdi ekkért sverd sér í hendi. 51. Þá hljóp Davíð ad, og gékk til Filisteans og tók hans sverd og dróg þad úr skeidum, og drap hann og hjó af honum høfudid med því. Og sem Filistear sáu ad kappinn var daudur, flýdu þeir. 52. Og Israels og Júda menn, tóku sig til og æptu mikid heróp, og eltu Filistea allt á móts vid dalinn og ad Ekrons borgarhlidi; og þar láu fallnir Filistear á veginum til Saaraim b) allt til Gat og allt til Ekron. 53. Og Israels synir snéru aptur, og hættu ad elta Filisteana og rændu herbúdirnar. 54. Og Davíð tók høfud Filisteans, og fór med þad til Jerúsalem, en vopn hans lagdi hann í sitt tjald.

55. En er Sál sá Davíð fara móti Filisteanum mælti hann vid Abner hershøfdíngjann: Abner, hvørs son er þessi úngi madur? Og Abner svaradi: svo sannarlega sem þú lifir, ó Konúngur! veit eg þad ekki. 56. Og Konúngurinn sagdi: spyr ad því hvørs son þessi úngi madur er! 57. Og þegar Davíð kom til baka og hafdi lagt ad velli Filisteann, tók Abner hann og leiddi fyrir Sál, en hann hafdi í hendi sér høfud Filisteans. 58. Og Sál sagdi til hans: hvørs son ertu þú, úngmenni! og Davíð svaradi: sonur þíns þénara Isaí, Betlehemítans.

## 18. Kapítuli.

Davíð og Jónatan verda vinir. Konurnar hrósa Davíð. Sál mislíkar, giftir honum þó dóttur sína Mikal.

1. Og þad skédi, er hann hafdi endad tal

V. 43. *a.* 2 Sam. 3, 8. V. 52. *b.* Jós. 15, 36.

sitt vid Sál, þá batt Jónatans sál sig vid Da-
víds sál, og Jónatan elskadi hann sem sína sál a).
2. Og Sál tók hann, þann sama dag, og
leifdi honum ekki ad fara heim aptur til føð-
ur síns. 3. Og Jónatan og Davíd gjørdu
fóstbrædra lag b) af því hann elskadi hann sem
sína sál. 4. Og Jónatan fór úr sinni skikkju
sem hann var í, og gaf hana Davíd, og sinn
kyrtil, já, sitt sverd, sinn boga og sitt belti.
5. Og Davíd var í sendiførum; hvørt sem Sál
sendi hann, hafdi hann lukku, og Sál setti hann
yfir strídsfólkid, og hann var elskadur af øllu
fólkinu og líka af þjónum Sáls.

6. Og þad skédi, er þeir fóru inn (í stad-
inn) þá Davíd kom til baka og hafdi lagt ad
velli Filisteann, ad konurnar úr øllum Israels
stødum geingu út á móti Sál Konúngi sýng-
jandi, honum til sóma, med básúnum, fagnad-
arópi og hljódfærum. 7. Og konurnar súngu,
þær sem léku á hljódfærin, og søgdu: Sál lagdi
ad velli sína þúsund; en Davíd sín tíu þúsund c).
8. Þá vard Sál æfa reidur, og honum mislík-
udu þessi ord, og hann sagdi: Davíd hafa þær
géfid 10 þúsund, og mér hafa þær géfid eitt
þúsund; og hér eptir fær hann Kóngsríkid í vid-
bót. 9. Og Sál leit øfundar augum til Da-
víds ávalt uppfrá þeim degi.

10. Og þad skédi annarsdags ad illur andi
frá Gudi kom yfir Sál; og hann æddi í hús-
inu, en Davíd lék med sinni hendi þenna dag,
eins og alla daga (á hljódfæri), og Sáls spjót
var í hans hendi. 11. Þá skaut Sál spjót-
inu, og hugsadi: eg vil nísta Davíd í gégn upp
vid vegginn; en Davíd skaut sér tvíveigis und-
an. 12. Og Sál óttadist Davíd, því Drottinn
var med honum, og frá Sál var hann vikinn.
13. Og Sál lét hann frá sér, og gjørdi hann
ad høfudsmanni yfir þúsund, og hann gékk út
og inn fyrir fólkinu. 14. Og Davíd var
heppinn á øllum sínum vegum og Drottinn var
med honum. 15. Og sem Sál sá þad, ad hann
hafdi mikla lukku, vard hann hræddur vid hann.
16. En allur Israel og Júda elskadi Davíd,
og hann gékk út og inn fyrir þeim.

17. Og Sál sagdi vid Davíd: sjá! mína
eldstu dóttur Merab vil eg gifta þér, reynstu
mér ad eins øruggur madur, og stríd þú
Drottins stríd d) en Sál hugsadi: mína hønd
skal eg ekki á hann leggja; en leggi Filistearnir
hønd á hann. 18. Og Davíd mælti vid Sál:
hvør er eg, og hvad mitt líf, ætt míns fødurs
í Israel, ad eg skyldi verda Kóngsins teingda-
sonur? 19. En þad skédi um þad bil sem
Merab dóttir Sáls skyldi géfast Davíd, þá var
hún géfin Adriel Meholatíta fyrir konu.

20. Og Mikal dóttir Sáls elskadi Davíd
og Sál var sagt þad, og honum líkadi þad
vel. 21. Og Sál mælti: eg vil géfa honum
hana svo hún verdi honum ad snoru, og hønd
Filisteanna komi yfir hann. Og Sál taladi
í annad sinn vid Davíd: þú skalt mægjast vid
mig í dag. 22. Og Sál baud sínum þénur-
um: talid vid Davíd heimuglega og segid:
sjá! Kóngurinn er þér velviljadur og allir hans
þjónar elska þig, svo skaltu nú mægjast vid
Konúnginn. 23. Og þjónar Sáls tøludu
þessi ord fyrir Davíds eyrum. Og Davíd
mælti: þykir ydur þad lítid ad mægjast vid
Konúnginn? eg er fátækur og lítils háttar
madur! 24. Og þénarar Sáls báru honum
þetta og mæltu: einmidt þessi ord hefir Davíd
talad. 25. Og Sál mælti: segid svo Davíd:
Kóngurinn girnist einga brúdar gáfu e), heldur
ad eins hundrad forhúdir Filisteanna, svo ad
hefnd verdi goldin fjandmønnum Konúngsins.
En Sál hugsadi ad láta Davíd falla fyrir

---

V. 1. *a*. Kap. 16, 21. 19, 1. V. 3. *b*. Kap. 20, 8. 16. 23, 18. 2 Sam. 21. 7. V. 7. *c*. Kap. 21, 11. 29, 5. V. 17. *d*. Adr. og berstu bardøgum Drottins. Kap. 25, 28. V. 25. *e*. Konur voru keyptar af fedrum þeirra.

hendi Filisteanna. 26. Og þjónar hans báru Davíð þessi ord, og Davíð líkadi þetta ad mægjast vid Kónginn. Og enn var ekki tíminn kominn. 27. Þá tók Davíð sig til og lagdi af stad, hann og hans menn og feldi medal Filisteanna 2 hundrud menn og kom med þeirra forhúdir, og menn løgdu þær allar med tølu fyrir Kónginn, svo ad hann skyldi ná mægdum vid Kónginn; og Sál gaf honum Mikal sína dóttur fyrir konu. 28. Og Sál sá og tók eptir því ad Drottinn var med Davíð; og Mikal, dóttir Sáls, elskadi hann (Davíð). 29. Og Sál hræddist Davíð enn meir, og sýndi honum fjandskap alla æfi.

30. Og þegar høfdíngjar Filistea fóru í hernad, svo skédi þad, svo opt sem þeir drógu út, ad Davíð var heppnari enn allir þjónar Sáls, og mikid ord fór af honum.

## 19. Kapítuli.

Sáls hatur, Jónatans vinskapur.

1. Og Sál taladi vid Jónatan og vid alla sína þénara um þad ad drepa Davíð. En Jónatan sonur Sáls var mikid ástfólginn Davíð a). 2. Og Jónatan sagdi Davíð frá þessu og mælti: fadir minn Sál sækist eptir ad deyda þig, gjættu þín nú á morgun, og fel þú þig, þar sem þú finnst ekki. 3. En eg vil gánga út og koma med fødur mínum í þad pláts hvar þú ert, og vil tala um þig vid fødur minn, og vita hvad þad er, og segja þér svo aptur. 4. Og Jónatan taladi vel um Davíð vid fødur sinn Sál og mælti svo vid hann: Konúngurinn syndgi sig ekki á sínum þjón Davíð, því hann hefir ekki syndgad á móti þér, og hans verk eru þér mjøg gagnleg. 5. Og hann hefir vogad sínu lífi b), og lagt ad velli Filisteann (Golíat), og Drottinn veitti Israel mikinn sigur. Þú hefir sjed þad og gladst; hvar fyrir viltu syndga þig á saklausu blódi, deyda Davíð án saka? 6. Og Sál skipadist vid ord Jónatans sonar síns og sór: svo sannarlega sem Drottinn lifir, hann skal ei deydast! 7. Þá kalladi Jónatan á Davíð, og sagdi honum øll þessi ord, og leiddi Davíð til Sál, og hann stód frammi fyrir honum sem ádur.

8. Og þar hófst aptur stríd, og Davíð fór út og bardist vid Filistea og feldi mikinn fjølda medal þeirra, en þeir flýdu fyrir honum.

9. Þá kom illur andi frá Drottni yfir Sál; en hann sat í sínu húsi og hafdi spjót sér í hendi, og Davíð lék á (hljódfæri) med sinni hendi, 10. og Sál leitadist vid med spjótinu ad leggja Davíð í gégn vid vegginn c); en hann skautst undan Sál, og hann rak spjótid í vegginn, og Davíð flúdi, og fór burt þá sømu nótt. 11. Þá sendi Sál sendimann í Davíðs hús til ad vakta hann og drepa hann um morguninn, en Mikal kona hans, sagdi Davíð frá, og mælti: ef þú bjargar ekki lífi þínu í nótt, svo verdur þú deyddur á morgun. 12. Þá lét Mikal Davíð út um glugga, og hann fór og flúdi og komst undan. 13. Og Mikal tók líkneski d) og lagdi í rúmid, og undir høfudid geitstøku e), og breiddi ábreidu yfir. 14. Og þegar Sál sendi mann til ad sækja hann, sagdi hún: hann er sjúkur. 15. Og Sál sendi mann til ad sjá Davíð og mælti: færid mér hann í rúminu, ad eg géti drepid hann. 16. En þegar sendimenn komu, sjá! svo lá líkneskid í rúminu og geitstakan undir høfdinu f). 17. Þá sagdi Sál til Mikal: því hefir þú svikid mig svona, og látid minn óvin undan komast? og Mikal sagdi til Sál: hann sagdi vid mig: sleptu mér! hvar fyrir skyldi eg deyda þig.

18. En Davíð flúdi og komst undan og kom

V. 1. *a.* Kap. 18, 3. 20, 17. V. 5. *b.* Dóm. 5, 18. 9, 17. V. 10. *c.* Kap. 18, 11. 20, 33. V. 13. *d.* Adr. húsgod. *e.* Adr. og lét á høfud þess geitahár. V. 16. *f.* Sbr. v. 13. *e.*

til Samúels í Rama og ſagdi honum frá øllu ſem Sál hafdi gjørt honum, og hann fór med Samúel og þeir bjuggu í Najot a). 19. Þetta frétti Sál, því menn ſøgdu: ſjá! Davíd er í Najot hjá Rama. 20. Þá ſendi Sál menn til ad ſækja Davíd, og ſem þeir ſáu ſøfnud ſpámannanna er ſpádu, og Samúel ſem var þeirra forſtødumadur, ſvo kom Guds Andi yfir ſendimenn Sáls og þeir ſpádu líka. 21. Og menn ſøgdu þetta Sál og hann ſendi adra menn, og þeir ſpádu einnegin; og Sál ſendi aptur þá þridju ſendimenn, þeir ſpádu og. 22. Þá fór hann ſjálfur til Rama, og kom ad þeirri miklu vatnsgryfju í Seku og ſpurdi og mælti: hvar eru þeir Samúel og Davíd? og menn ſøgdu: ſjá! í Najot hjá Rama, 23. Og hann fór til Najot hjá Rama, og yfir hann kom líka Guds Andi, og hann gékk alla leidina ſpáandi, þángad til hann kom til Najot hjá Rama. 24. Og líka kaſtadi hann af ſér klædum, og ſpádi frammi fyrir Samúel, og lá þar nakinn allan daginn og alla nóttina. Því er máltækid: er Sál og ſvo medal ſpámannanna.

## 20. Kapítuli.

Davíd og Jónatan verda ad ſkilja.

1. Og Davíd flúdi frá Najot b) hjá Rama og kom og taladi vid Jónatan: hvad hefi eg gjørt, hvør er mín yfirſjón og hvør mín ſynd, á móti fødur þínum, ad hann ſitur um mitt líf? 2. Og hann mælti vid hann: þad ſé fjærri! þú munt ekki deya, ſjá! fadir minn gjørir ekkért hvørki ſmátt né ſtórt, ad hann láti mig ei vita þad; og hvar fyrir ſkyldi fadir minn leyna mig þeſsu? nei, þad er ekki ſvo! 3. Og Davíd ſór í annad ſinn, og mælti: fadir þinn hefir tekid eptir ad eg hefi fundid nád í þínum augum, og ſvo hugſadi hann: Jónatan ſkal ekki vita þetta, ſvo hann ekki ángriſt. En ſvo ſannarlega ſem Drottinn lifir og þú lifir! milli mín og daudans er, ad eins, eitt fótmál. 4. Og Jónatan mælti til Davíds: þad ſem þitt hjarta ſegir, vil eg gjøra þér. 5. Og Davíd ſagdi til Jónatans: ſjá! á morgun er túnglkomudagur, og mér ber ad ſitja til bords med Kónginum, en leifdu mér ad vera þar frá, og eg vil fela mig útá landinu allt til þridja kvølds. 6. Skyldi nú fadir þinn ſakna mín, þá ſegdu: Davíd hefir feingid leifi hjá mér ad hlaupa til Betlehem ſíns ſtadar, því þar er ársfórn fyrir alla ættina. 7. Segi hann þá: þad er gott, ſvo á þinn þjón von á fridi; en verdi hann illur, ſvo vit, ad þad illa er áliktad, af hans ſálu. 8. Sýndu nú gódſemi þjón þínum, því í Drottins (heilagt) fóſtbrædralag hefir þú látid þinn þjón gánga vid þig. En ſé nokkur yfirtrodſla á mína hønd, þá drep þú mig. Því hvar fyrir ſkyldir þú vilja fara med mig til fødur þíns? 9. Og Jónatan mælti: fjærri mér ſé þad, ad eg ſkyldi ei láta þig vita ef eg verd var vid, ad eitthvad íllt er áliktad ad yfir þig ſkuli koma af hendi fødur míns! 10. Og Davíd ſagdi vid Jónatan: hvør lætur mig vita þad? og hvørſu hardlega mundi fadir þinn ſvara þér, (ef þú gjørdir þad). 11. Og Jónatan ſagdi vid Davíd: kom! látum oſs gánga útá landid. Og þeir geingu bádir útá landid. 12. Og Jónatan mælti vid Davíd: Drottinn Israels Gud! z: (heyri hvad eg mæli) þegar eg hefi grenſlaſt eptir hjá fødur mínum, á morgun um þetta leiti, eda daginn þar eptir, og ſjá! þad ſtendur vel til med Davíd, og eg þá ekki ſendi til þín og opinbera þér þad, 13. ſvo ſkal Drottinn gjøra vid Jónatan þad og þad, og enn fremur! hafi fadir minn íllt í ſinni vid þig, ſvo mun eg láta þig vita þad, og láta þig í burtu, ſvo þú farir í fridi. Og Drottinn ſé

V. 18. *a.* Skólahúſinu, eins í ſylg: verſum. V. 1. *b.* Skólahúſinu Kap. 19, 18. og fl.

med þér, einsog hann hefir verid med mínum fødur. 14. En ekki (sé hann med þér) nema þú audsýnir mér Drottins miskunsemi medan eg er á lífi, ad eg ekki deyi, 15. og nema þú takir ekki þína miskun frá mínu húsi ad eilífu, og ekki, eptir ad Drottinn hefir útrudt einum og sérhvørjum óvin Davíds úr landinu. 16. Og svo gjørdi Jónatan sáttmála vid Davíds hús, og mælti: Drottinn hefni fyrir Davíd á hans óvinum! 17. Og Jónatan sór Davíd enn einusinni, því hann elskadi hann, já, elskadi hann sem sína eigin sál. 18. Og Jónatan sagdi til hans: á morgun er túnglkoma, þá verdur þín saknad, því eptir því mun verda tekid ad sæti þitt er audt; 19. En daginn þar eptir þá hrada þú þér og kom á þann stad, hvar þú fólst þig vonda daginn, og vertu hjá klettinum Asel. 20. Og eg mun skjóta þremur pílum á hlid vid hann, einsog eg vilji skjóta til hæfis. 21. Og sjá! eg mun senda dreinginn: (og segja) fardu! sæktu ørvarnar! segi eg vid dreinginn: sjá! ørvarnar eru hérna meigin vid þig, sæktu þær! þá skaltu koma; því þá er þér óhætt, og ekkért er (ad óttast) svo sannarlega sem Drottinn lifir! 22. En segi eg vid dreinginn: sjá! ørvarnar eru hinumeigin framundan þér, svo far þú, því Drottinn hefir skipad þér ad fara. 23. En sú søk sem vid høfum talad um, eg og þú, þá sjá! Drottinn er milli mín og milli þín ad eilífu.

24. Og svo fól Davíd sig út á landinu. Og þad var túnglkoma, og Kóngurinn settist ad máltíd til ad eta. 25. Og Kóngurinn setti sig í sitt sæti í þetta sinn, sem ætíd, í sætid vid vegginn; og Jónatan reisti sig, og Abner settist hjá Sál, og menn sáu ad Davíds rúm var audt. 26. En Sál sagdi ekkért þenna dag, því hann hugsadi: honum hefir eitthvad þad tilviljad, ad hann er ekki hreinn; vissulega er hann ekki hreinn. 27. En þad skédi daginn eptir, þann annann dag túnglkomunnar, þegar menn sáu Davíds rúm audt, ad þá sagdi Sál vid sinn son Jónatan: hvørsvegna hefir Isai son hvørki í gjær né í dag komid til máltídar? 28. Og Jónatan svaradi Sál: Davíd fékk hjá mér leyfi ad fara til Betlehem, 29. og sagdi: leyfdu mér ad fara, því vér høfum ættar offur í stadnum, og bródir minn hefir bodid mér, og hafi eg nád fundid í þínum augum, svo leyfdu mér ad fara, ad eg sjái brædur mína; því er hann ekki komin til Kóngsins bords. 30. Þá vard Sál illur vid Jónatan, og mælti: þú sonur aflægisins og þrákálfsins! veit eg ekki ad þú elskar Isai son þér til skammar, og til skammar bligdun módur þinnar? 31. Því svo leingi sem Isai son lifir á jørdunni, munt þú ekki standast, þú og þinn Konúngdómur. Og sendu nú og láttu sækja hann og koma med hann til mín; því hann er daudans barn. 32. Og Jónatan svaradi Sál fødur sínum og mælti: hví skal hann deyda, hvad hefir hann gjørt? 33. Þá snaradi Sál ad honum spjóti, til ad leggja hann í gégn. Og Jónatan sá ad þad var fastrádid af fødur sínum ad deyda Davíd. 34. Og Jónatan stód upp frá bordinu, logandi af reidi, og át ekki þann annan dag túnglkomunnar; því hann var ángurvær vegna Davíds, af því fadir hans hafdi gjørt honum hádúng.

35. Og þad skédi um morguninn (eptir) ad Jónatan gékk útá land, á þann stad sem tiltekid var vid Davíd, og lítill dreingur med honum. 36. Og hann sagdi vid sinn dreing: hlaup þú, sæktu nú ørvarnar sem eg ætla ad skjóta! dreingurinn hljóp og hann skaut ørvunum yfir hann fram. 37. Og sem dreingurinn kom á þann stad sem ørin lá er Jónatan hafdi skotid, kalladi Jónatan eptir dreingnum og mælti: er ekki ørin hinumeigin framm undan þér? 38. Og Jónatan kalladi til dreingsins: flýttu þér, stattu ekki kyrr! Og svo tíndi Jónatans dreingur ørvarnar saman og kom til síns Herra, 39.

en dreingurinn vissi ekkért; einasta Jónatan
og Davíd vissu hvad þetta átti ad þýda. 40.
Og Jónatan fékk dreing sínum vopnin og mælti:
fardu nú, og ber þú þetta inn í stadinn. 41.
Dreingurinn fór, og Davíd tók sig upp þar
ad sunnanverdu, og féll á sitt andlit til jardar,
og hneigdi sig þrísvarsinnum, og þeir kystu hvør
annann og grétu hvør med ødrum, þángad til
Davíd grét hástøfum. 42. Og Jónatan sagdi
til Davíds: far þú nú í fridi! því vidvíkjandi
sem vid bádir høfum svarid vid Drottins nafn
og sagt: Drottinn sé milli mín og milli þín,
og milli míns sædis og þíns sædis ad eilífu,
þá sé þad svo. 43. Og hann tók sig upp og
fór, og Jónatan kom til stadarins.

## 21. Kapítuli.

Davíd flýr til Nobe og þadan til Akis Kóngs í Gat.

1. Og Davíd kom til Nobe a), til prestsins
Abímeleks, og Abímelek gékk strax á móti Da-
víd, og mælti: hvar fyrir ertu einsamall og
einginn madur med þér? 2. Og Davíd sagdi
til prestsins Abímeleks: Kóngurinn hefir trúad
mér fyrir erindi nokkru og mælti vid mig:
einginn madur má vita neitt af þessu erindi
vegna hvørs eg sendi þig, og sem eg hefi bod-
id þér; og sveinana lét eg frá mér á þeim sama
stad. 3. Og nú, hvad er þér fyrir hendi?
géfdu mér 5 braud eda hvad þú hefir. 4. Og
presturinn svaradi Davíd og mælti: hér er ekk-
ért almennilegt braud til, heldur þau heiløgu
braud; hafi þénararnir ad eins haldid sér frá
konum b). 5. Og Davíd svaradi prestinum og
sagdi til hans: kvenna er oss varnad sídan í
gjær og fyrradag, ad eg fór af stad, og kér þén-
aranna voru hrein c), og nú eru þau (braudin)
á leid ad verda almennileg, því í dag á ad láta
ný skodunar braud á bordid d). 6. Þá gaf
presturinn honum þad heilaga braud, því þar
var ekkért braud nema skodunar braudid e), sem
menn tóku frá Drottins augliti, til þess ad
leggja þar aptur volgt braud, daginn sem hitt
(braudid) var burt tekid. 7. En þar var inni
madur nokkur sama dag af þjónum Sáls frammi
fyrir Drottni, ad nafni Doeg, Edomíti, umsjón-
ar madur yfir Sáls hyrdurum. 8. Og Davíd
sagdi til Abímeleks: er þér ekki vid hønd spjót
eda sverd? því hvørki mitt sverd né mín vopn
hefi eg tekid med mér, því Kóngs erindid bar
brádt ad. 9. Og presturinn mælti: sverd Golí-
ats Filisteans, sem þú feldir í Eikidalnum, sjá!
þad er sveipad dúk, á bak vid høkulinn, viljir
þú taka þad, svo taktu þad! því hér er ekkért ann-
ad, enn þad. Og Davíd mælti: þess maki er
ekki til, fádu mér þad.
10. Svo tók Davíd sig upp, og flúdi þann
sama dag fyrir Sál, og kom til Akis Kóngs í
Gat f). 11. Og þjónar Akis tøludu um hann:
er þetta ekki Davíd, landsins Konúngur? súngu
þær ekki (konurnar) um hann honum til vegs,
segjandi: Sál feldi sína þúsund og Davíd sín
10 þúsund g)? 12. Og Davíd lagdi þessi ord
uppá sitt hjarta, og hræddist Akis Kónginn í
Gat. 13. Og hann létst vera vitskértur fyrir
þeirra augum og hagadi sér álfslega, rispadi
vængja hurd hallardyranna og skirpti í skéggid.
14. Þá mælti Akis til sinna þénara: sjá! þar
sjáid þér mann sem hagar sér sem vitfyrríngur;
því komid þér med hann til mín? 15. Hefi eg
ekki nóg af vitfirríngum? ad þér komud med
þenna til ad haga sér aflægislega? skal hann
koma í mitt hús?

## 22. Kapítuli.

Davíd verdur flokks foríngi, ættmenn hans fara úr landi; Prestarnir drepnir.

1. Og Davíd fór þadan og komst undan í

V. 1. *a.* Neh. 11, 32. V. 4. *b.* Ex. 19, 15. V. 5. *c.* Lev. 11, 32. fl. *d.* Ex. 37, 17. V. 6. *e.* Lev. 24, 5. fl. Matth. 12, 4. Lúc. 6, 3. V. 10. *f.* Kap. 27, 2. V. 11. *g.* Kap. 18, 7. Sir. 47, 8.

hellirinn Adullam. Og hans brædur og allt
hans fødurs hús heyrdi þad, og komu þángad
til hans. 2. Og ad honnm drógust allir þeir
sem voru í krøggum og skuldum og sem íllt var
í (vid stjórnina) og hann gjørdist þeirra høfd-
ingi, og med honum voru nálægt 4 hundrud
manns. 3. Og Davíd fór þadan til Mispe í
Móabs landi, og sagdi vid Móabs Kóng: leyf
fødur mínum og módur minni ad vera hér,
þángad til eg sje hvad Gud gjørir vid mig.
4. Og hann leiddi þau fyrir Móabs Kóng, og
þau voru hjá honum, svo leingi sem Davíd
var (á fjøllunum) í óbygdinni. 5. Og spá-
madurinn Gad sagdi vid Davíd: vertu ekki á
fjøllunum, far þú hédan og til landsins Júda.
Þá fór Davíd og kom í skóginn Haret.

6. Og Sál frétti ad menn vissu af Davíd,
og þeim mønnum sem med honum voru. En
Sál sat í Gíbea undir runnanum á hædinni,
og hafdi spjót í sinni hendi, og allir hans þjónar
stódu hjá honum. 7. Og Sál mælti til sinna
þénara sem hjá honum stódu: heyrid þér Ben-
jamínítar! ætli Isaí son géfi ydur øllum akra
og víngarda, og gjøri ydur alla ad høfuds-
mønnum yfir þúsund (manns) og høfudsmønn-
um yfir hundrad (manns), 8. ad þér allir
hafid samsvarist móti mér og einginn hefir
sagt mér frá því, þá sonur minn gjørdi sátt-
mála vid Isaí son, og einginn ydar hefir tek-
id upp þykkjuna fyrir mig, og opinberad mér
þad, ad sonur minn hefir uppegnt móti mér
minn þræl, sem umsáturs mann, eins og nú
er framkomid? 9. Þá svaradi Edomítinn Do-
eg [a]), sem stód hjá þjónum Sáls og mælti: eg
sá Isaí son koma til Nobe, til Abímeleks, son-
ar Ahitubs. 10. Og hann adspurdi Drottinn
fyrir hann, og matvæli gaf hann honum, og
sverd Golíats Filisteans fékk hann honum.

11. Þá sendi Kóngurinn eptir prestinum
Abímelek, syni Ahitubs, og eptir øllu hans fød-
urs húsi, prestunum sem voru í Nobe, og þeir
komu allir til Konúngsins, 12. og Sál mælti:
heyr þú þá, Ahitubs son! og hann sagdi: hér
er eg, herra minn! 13. Og Sál mælti til
hans: hvar fyrir hafid þér samsvarist á móti
mér, þú og Isaí son, þared þú fékkst honum
braud og sverd, og spurdir Gud fyrir hann,
ad hann gjørdi uppreisn móti mér sem um-
sátursmadur, eins og nú er framkomid? 14.
Og Abímelek svaradi Kónginum og mælti: og
hvør er medal allra þinna þjóna svo trúr sem
Davíd, Kóngsins teingdason, sem hefir adgáng
til þinna leyndar ráda og er heidradur í þínu
húsi? 15. Hefi eg þá byrjad í dag ad spyrja
Gud fyrir hann? fjærri sé mér þad! leggi
Kóngurinn ekkért sínum þjón til lasts, né øllu
mínu fødurs húsi; því þinn þjón hefir ekki
vitad neitt af øllu þessu, mikid né lítid. 16.
En Konúngurinn mælti: deya hlýtur þú Abí-
melek! þú og allt hús fødur þíns. 17. Og
Konúngurinn sagdi til hirdmannanna sem
hjá honum stódu: gángid ad og drepid presta
Drottins, þared og þeirra hønd er med Davíd,
og af því þeir vissu ad hann flúdi, og hafa
ekki opinberad mér þad, en þjónar Kóngsins
vildu ekki útrétta sína hønd til ad deyda presta
Drottins. 18. Þá mælti Konúngurinn til
Doegs: gakk hér ad og drep þú prestana! svo
gékk Edomítinn Doeg ad og vann á prestunum,
og deyddi á þeim sama degi áttatýgi og fimm
menn sem báru línhøkul. 19. Og Nobe, stad
prestanna, sló hann med sverds eggjum, menn
og konur, børn og brjóstmilkínga, uxa, asna og
saudi med sverds eggjum. 20. Og einn af
sonum Abímeleks, sonar Ahitubs, komst undan,
hann hét Abiatar, og flúdi til Davíds. 21.
Og Abíatar sagdi Davíd frá, ad Sál hefdi
myrdt presta Drottins. 22. Og Davíd sagdi

V. 9. a. Kap. 21, 7. Sálm. 52, 2.

til Abiatars: eg vissi þad hinn sama dag, ad
Edomítinn Doeg var þar, og ad hann mundi
segja Sál frá, eg er sekur í lífláti allra þinna
ættmanna. 23. Vertú med mér og óttast
ekki, því sá sem sækist eptir mínu lífi sækist og
eptir þínu lífi, því ertu vel vardveittur hjá mér.

## 23. Kapítuli.

Davíd er ofsóktur og svikinn.

1. Og menn færdu Davíd fregn og søgdu:
sjá! Filistear herja á Kegila a) og þeir ræna
kornhlødurnar (láfagardana b). 2. Þá spurdi
Davíd Drottinn og sagdi: skal eg fara og slá
þessa Filistea? Og Drottinn sagdi til Davíds:
far þú og slá Filisteana og frelsadu Kegila.
3. En Davíds menn søgdu til hans: sjá! vér
erum hræddir um oss hér í Júda, hvørsu miklu
framar ef vér førum til Kegila mót herfylking-
um Filisteanna. 4. Þá spurdi Davíd Drott-
inn aptur, og Drottinn svaradi honum og mælti:
taktu þig upp og far til Kegila! því eg géf
Filisteana í þína hønd. 5. Og svo fór Davíd
og hans menn til Kegila, og bardist vid Fili-
stea, og rak þeirra flokka á flótta, og lagdi
ad velli fjølda medal þeirra, og svo frelsadi
Davíd þá í Kegilu. 6. En þad skédi, þegar
Abíatar, sonur Abímeleks, flúdi til Davíds í
Kegila, þá hafdi hann medferdis høkulinn. 7.
Og Sál var sagt ad Davíd væri kominn til
Kegila; þá mælti Sál: Gud hefir géfid
hann í mína hønd, fyrst hann hefir sig inn-
læst og er kominn í borg sem hefir port og
slagbranda c). 8. Og Sál lét samankalla
allt fólkid til stríds, svo þad færi til Kegila,
og settist um Davíd og hans menn. 9. Og
þegar Davíd frétti ad Sál bruggadi sér ó-
lukku í kyrrþey, sagdi hann vid prestinn Abí-
atar: kom þú híngad med høkulinn d)! 10.
Og Davíd mælti: Drottinn Israels Gud!
þinn þjón hefir heyrt ad Sál ætli sér ad koma
til Kegilu, til ad eydileggja stadinn mín vegna;
11. ætla borgarmennirnir í Kegilu afhendi mig
í hans hønd? ætla ad Sál komi eins og þinn
þjón hefir heyrt? Drottinn, Israels Gud, kunn-
gjør þú þad þínum þénara. Og Drottinn
svaradi: hann mun koma. 12. Og Davíd
mælti: munu borgarmenn í Kegilu framselja
mig og mína menn í Sáls hønd? og Drott-
inn sagdi: þeir munu framselja þig. 13. Þá
tók Davíd sig upp og hans menn hérum-bil 6
hundrud, og þeir løgdu af stad frá Kegilu, og
fóru hvørt sem þeir gátu farid. Þegar Sál
frétti þad, ad Davíd væri slúinn frá Kegilu,
þá slepti hann herførinni. 14. Og Davíd var
í eydimørkinni á fjøllum, á fjøllunum í eydi-
mørkinni Sif. Og Sál ofsókti hann medan
hann lifdi, en Gud gaf hann ekki í hans hønd.
15. Og Davíd sá, ad Sál var lagdur af stad
til ad sækjast eptir hans lífi, en Davíd var í
eydimørkinni Sif, í skóginum. 16. Og Jón-
atan, sonur Sáls, tók sig til, og kom til Da-
víds í skóginn, og styrkti hans hønd med Gudi.
17. Og hann sagdi vid hann: vertu óhrædd-
ur! því hønd fødur míns Sáls, mun ei hitta
þig, og þú munt verda Kóngur yfir Israel,
og eg vil gánga þér næst; og fadir minn Sál
veit þad. 18. Og þeir gjørdu bádir sáttmála fyrir
Drottni e), og Davíd var í skóginum kyrr,
en Jónatan fór heim til sín.

19. Þá komu Sifítar f) til Sáls í Gíbea
og søgdu: Davíd hefir falid sig hjá oss á fjøll-
unum í skóginum, á fjallinu Hakila, sem er
sunnarlega í eydimørkinni. 20. Og nú, ef
Kónginum lítst, ad fara, svo legg þú nú af stad,
oss er þad audveldt ad afhenda hann í Kóngsins
hønd. 21. Og Sál mælti: blessadir séud þér

V. 1. *a.* Jós. 15, 44. V. 1. *b.* Núm. 18, 30. Rut. 3, 2. fl. V. 7. *c.* Devt. 3, 5. V. 9. *d.* Kap. 30, 7.
V. 18. *e.* Kap. 18, 3. 20, 16. V. 19. *f.* Kap. 26, 1. Sálm. 54, 2. V. 21. *g.* Ex. 2, 6. Jer. 15, 5.

af Drottni, ad þér hafid aumkast yfir mig g).
22. Farid nú og takid vel eptir, og njósnid
og sjáid hans stad, hvørt hans fótur kémur,
hvør hann hefir sjed þar; því menn hafa sagt
mér ad hann sé mikid vidsjáll. 23. Og sjáid
nú til og njósnid um øll hans filsni, sem hann
felur sig í, og komid aptur til mín med vissu,
ad eg fari med ydur. Og ef ad hann er í land-
inu, svo skal eg finna hann medal allra Júda
þúsunda. 24. Þá tóku þeir sig upp, og fóru
á undan Sál til Sif. En Davíd og hans
menn voru í eydimørkinni Maon á sléttunni
sudur í eydimørkinni. 25. Og Sál og hans
menn løgdu af stad ad leita hans. En menn
søgdu þad Davíd, og hann fór nidur af hømrun-
um og stadnæmdist í Maons eydimørk. Og
sem Sál heyrdi þad, fór hann eptir Davíd
inní eydimørkina Maon. 26. Og Sál fór
ødrumeigin vid fjallid en Davíd og hans menn
hinumegin vid fjallid; og Davíd flýtti sér ad
komast undan Sál; en Sál og hans menn um-
kríngdu Davíd og hans menn til ad ná þeim.
27. En sendimadur kom til Sáls og mælti:
kom þú nú fljótt! því Filistearnir eru komnir inní
landid. 28. Þá snéri Sál til baka, og hætti ad
elta Davíd og fór á móti Filisteum, því var
sá stadur kalladur Selama Helkot (skilnadar
klettur).

## 24. Kapítuli.

Davíd sparar Sál í hellrinum.

1. Og Davíd fór þadan uppávid og stad-
næmdist á Engedisfjøllum. 2. Og þad skédi
þá Sál var kominn til baka frá herførinni
móti Filisteum, báru menn honum tídindi og
søgdu: sjá! Davíd er í Engedis eydimørku.
3. Þá tók Sál 3 þúsund manns einvala lid,
af øllum Ísrael, og lagdi af stad til ad leita
Davíds og hans manna í steingeita hømrun-
um. 4. Og hann hitti fjárhirdara hjá vegin-
um, þar var hellir, og Sál gékk inn í hann
til ad hylja fætur sína a); en Davíd og hans
menn sátu inst í hellrinum. 5. Þá søgdu menn
Davíds vid hann: sjá! þessi er dagurinn um
hvørn Drottinn hefir talad vid þig: sjá! eg
géf þinn óvin í þína hønd; gjørdu því vid hann
þad sem þér gott þykir. Og Davíd stód upp,
og sneid í kyrrþey lafid af Sáls skikkju. 6.
En þad skédi þar eptir, þá straffadi Davíds
hjarta hann, ad hann hefdi afskorid Sáls skikk-
julaf, 7. og sagdi vid sína menn: Drottinn láti
þad vera fjærri mér, ad eg gjøri slíkt vid minn
herra, Drottins smurda, ad eg leggi mína hønd
á hann! því Drottins smurdi er hann. 8.
Og Davíd aptradi sínum mønnum med ordum,
og leyfdi þeim ekki ad rádast ad Sál. En Sál
stód upp úr hellirnum og gékk út á veginn, 9.
og eptir þad stód Davíd upp, og gékk út úr
hellirnum, og kalladi eptir Sál og mælti: minn
Herra, Konúngur! þá leit Sál vid, og Davíd
beigdi sitt andlit til jardar og laut honum.
10. Og Davíd sagdi til Sál: því hlýdir þú
á tal þeirra manna sem segja: sjá! Davíd vill
þína ólukku? 11. Sjá! á þessum degi hafa þín
augu sjed, ad Drottinn gaf þig í mína hønd í
hellirnum; og menn eggjudu mig, ad eg skyldi
drepa þig, en eg sparadi þig og hugsadi: eg
skal ekki leggja mína hønd á minn herra,
því hann er Drottins smurdi. 12. Og minn
fadir! sjá! já, sjá! lafid af þinni yfirhøfn í
minni hendi! því ad eg sneid lafid af þinni
yfirhøfn, og deyddi þig ekki, þar af skaltu þekk-
ja og sjá, ad ekkért íllt er í minni hendi, né
yfirtrodsla, og ad eg hefi ekki syndgast á þér;
en þú sækist eptir mínu lífi til ad ná því. 13.
Drottinn dæmi milli mín og þín, og hefni mín
á þér; en mína hønd legg eg ekki á þig.
14. Eins og ordtak hinna gømlu segir: af
vondum kémur vondt; en mína hønd legg eg ekki

V. 4. *a.* Adr. ad sofa þar. Dóm. 3, 24.

á þig. 15. Hvørn eltir Kóngurinn af Ísrael, hvørn offækir þú? daudan hund, eina fló a). 16. Sé því Drottinn dómari og dæmi milli mín og þín, og sjái til, og taki minn málstad, og útvegi mér rétt af þinni hendi. 17. Og þad skédi, þá Davíd hafdi endad þetta tal vid Sál, ad Sál mælti: er þad þín raust, minn sonur Davíd! og Sál upphóf sína raust og grét. 18. Og hann mælti til Davíds: þú ert réttvísari enn eg, því þú hefir sýnt mér gott, en eg hefi sýnt þér íllt, 19. og þú hefir látid sjá í dag, ad þú hefir gjørt mér gott, ad þú deyddir mig ekki, þó Drottinn gjæfi mig í þína hønd. 20. Því hitti einhvør sinn óvin, mun hann þá láta hann fara í fridi? b). Svo umbuni Drottinn þér gódu fyrir þennan dag, þad sem þú gjørdir mér. 21. Og sjá nú! eg veit ad þú munt verda Kóngur, og Ísraels Konúngdómur stadfestist í þinni hendi; 22. svo sver mér nú vid Drottinn c), ad þú skulir ekki útrydja mínum nidjum eptir mig, og ekki afmá mitt nafn úr míns fødurs húsi. 23. Og Davíd sór Sál, og Sál fór heim til sín, og Davíd og hans menn fóru uppá fjallid.

## 25. Kapítuli.

Samúel deyr. Nabals adsjálni.

1. Og Samúel dó, og allur Ísrael samansafnadist, og þeir syrgdu hann, og grófu hann í sínu húsi í Rama d). Og Davíd tók sig upp og fór í eydimørkina Paran e). 2. En þar var madur í Maon, sem hafdi bú á Karmel, og hann var slúgríkur, átti 3 þúsund saudi og þúsund geitur, og hann klippti saudi sína á Karmel. 3. En madurinn hét Nabal og nafn hans konu var Abígael, og konan var vitur og fríd sýnum, en madurinn hardur og vondur vidureignar, og af Kalebs ætt f). 4. Og Davíd frétti í eydimørkinni ad Nabal klippti sína saudi. 5. Þá sendi Davíd 10 sína sveina, og sagdi til sveinanna: farid til Karmel, og gángid fyrir Nabal, og spyrjid í mínu nafni um hans velvegnan, 6. og mælid svo: Gud gefi þér lukku! vegni þér vel og þínu húsi og øllu er þér vidvíkur! 7. og nú hefi eg heyrt ad þeir klippi þína saudi; og nú hafa þínir hyrdarar verid med oss, vér høfum ekkért mein gjørt þeim, og ekkért hafa þeir mist nokkurntíma svo leingi sem þeir voru á Karmel. 8. Spyr þú þína sveina, þeir munu láta þig vita þad — og svo óska eg ad mínir sveinar finni nád í þínum augum, því á hátídis degi erum vér til þín komnir, gefdu, vinur! þínum þjónum og þínum syni Davíd, þad sem þú hefir fyrir hendi g)! 9. og svo komu Davíds sveinar og tøludu vid Nabal einmidt þessi ord, í Davíds nafni, og þøgnudu svo. 10. En Nabal svaradi þjónum Davíds og mælti: hvør er Davíd? og hvør er Ísaí son? nú á døgum gefast margir þénarar sem strjúka frá sínum húsbændum. 11. Og skal eg nú taka mitt braud og mitt vatn og mitt kjøt sem eg hefi slátrad handa þeim sem klippa féd, og gefa þad mønnum, sem eg ekki þekki, ekki veit hvadan eru? 12. Og Davíds sveinar fóru sína leid, snéru til baka, komu og søgdu honum einmidt øll þessi ord. 13. Þá mælti Davíd til sinna manna: girdist nú, hvør og einn ydar, sínu sverdi! og þeir girdtust, hvør sínu sverdi, og Davíd girdtist og sínu sverdi, og þeir fóru med Davíd, nálægt 4 hundrud manns, og tvø hundrud voru eptir hjá farángrinum. 14. En sveinn nokkur af sveinunum sagdi Abígael, konu Nabals frá, og mælti: heyrdu! Davíd hefir sendt sendimenn úr eydimørkinni, til ad óska húsbónda vorum til lukku, en hann jós yfir þá fáryrdum, 15. og mennirnir eru mikid gódir vid oss, og þeir

V. 15. *a.* Kap. 26, 20. 2 Sam. 9, 8. V. 20. *b.* Hebr. á gódann veg. V. 22. *c.* Jós. 2, 12. V. 1. *d.* Kap. 28, 3. *e.* Gen. 21, 21. V. 3. *f.* Jós. 15, 13. V. 8. *g.* Kap. 10, 7. Dóm. 9, 38.

hafa ekkért mein gjørt oss, og vér høfum aldrei
misst neitt, svo leingi sem vér vorum med þeim,
þá vér vorum á mørkinni. 16. Þeir voru sem
girdíng í kríngum oss dag og nótt, svo leingi
sem vér vorum med þeim og héldum fénu til
haga. 17. Og hugsadu nú um og sjádu til
hvad þú skalt gjøra, því ólukka er búin vor-
um húsbónda og øllu hans húsi, og hann er
slæmur madur a), svo madur gétur ei vid
hann talad. 18. Þá brá Abígael vid, og tók
2 hundrud braud, og 2 vínbrúsa og 5 upp-
sodna saudi, og 5 mælira af steiktu axi, og
hundrad þurra vínberja klasa og 2 hundr-
ud fíkju køkur, og klifjadi asna, 19. og mælti til
sveinanna: farid á undan mér! sjá! eg kém á
eptir ydur. En manni sínum Nabal sagdi
hún ekkért. 20. Og þad skédi, þá hún reid
asnanum og var komin nidur af fjallinu, sjá!
þá komu þeir Davíd og hans menn á móti
henni, og hún hitti þá þar. 21. En Davíd
hafdi sagt: já! til einkis hefi eg verndad allt,
sem þeim manni tilheyrdi í eydimørkinni, svo ad
ekkért af því tapadist nokkurntíma sem hann
átti, og hann hefur launad mér gott med
íllu b). 22. Svo gjøri Gud Davíds óvinum
og enn fremur, eg skal ekki láta eptir verda
þegar birtir á morgun, af øllu sem hann á,
ekki svo mikid sem hund c)! 23. En er Abí-
gael sá Davíd, sté hún sem skjótast nidur af
asnanum og féll fram fyrir Davíd á sitt andlit,
og beigdi sig til jardar, 24. og féll honum
til fóta og mælti: minn herra! allt bytni á
mér! leyfdu samt þinni ambátt ad tala fyrir
þínum eyrum, og heyrdu tal þinnar ambáttar.
25. Minn herra géfi eingan gaum þessum
vonda manni, Nabal, því eins og hans nafn
þýdir, svo er hann Flón (Nabal) er hans nafn;
og flónskan er honum eiginleg, og eg, þín
þerna, hefi ekki séd sveina míns herra, sem þú
sendir. 26. Og nú, minn herra! svo sann-
arlega sem Drottinn lifir, og þín sál lifir,
Drottinn hefir aptrad þér frá ad úthella blódi
og ad útvega þér lidsemd med eigin hendi, og
séu þínir óvinir sem Nabal, og þeir sem leita
ófara herra míns! 27. Og þessa gásu, sem
þín þerna hefur fært mínum herra, látid géfa
hana sveinunum sem fylgja mínum herra. 28.
Fyrirgéf afbrot þinnar ambáttar! því veita mun
Drottinn mínum herra stadfast hús, því minn
herra strídir Drottins stríd d), og ekki mun
íllt hjá þér finnast svo leingi sem þú lifir. 29.
Og þó madur sé risinn upp til ad ofsækja þig,
og sækjast eptir þínu lífi, þá sé líf míns herra
bundid í bindini enna lifendu hjá Drottni, þín-
um Gudi, og lífi þinna óvína mun hann midt
úr slaungunni burt þeyta. 30. Og þegar
Drottinn hefir algjørt þetta vid minn herra
eins og hann hefir þér gódu heitid, og gjørt
þig ad fursta yfir Israel e): 31. svo mun
þad ekki verda til ásteitíngar eda til hjarta-
sorgar mínum herra, ad þú hafir úthellt blódi
án orsaka, ag ad minn herra hafi hjálpad
sjálfum sér. En þegar Drottinn gjørir vel
vid minn herra, svo minnstu þinnar ambáttar.
32. Og Davíd mælti til Abígael: lofadur
veri Drottinn Israels Gud, sem sendi þig í
dag á móti mér! 33. Og vegsamad sé þitt
vit, og vegsømud sért þú, ad þú í dag hindrar
mig frá ad baka mér blódskuld, og útvega mér
hjálp med minni hendi! 34. En svo sannar-
lega sem Drottinn lifir, Israels Gud, sem aptr-
adi mér frá ad gjøra þér íllt! hefdir þú ekki
svo fljótt komid á móti mér, þá hefdi ekkért af
Nabal verid eptir ordid í birtíngu á morgun, ekki
einn hundur. 35. Og Davíd tók á móti af
hennar hendi því sem hún kom med, og sagdi

V. 17. *a.* Hebr, Belials sonur sbr. v. 25. 2 Sam. 20, 1. V. 21. *b.* Kap. 24, 18. Sálm. 35, 12. V. 22. *c.* Sbr. v. 34. 1 Kóng. 14, 10. 2 Kóng. 9, 8. V. 28. *d.* Kap. 18, 17. V. 30. *e.* 2 Sam. 5, 2.

til hennar: far þú í fridi heim til þín! sjá! eg hefi hlýdt þinni raust og géfid gaum þínu málefni a). 36. En er Abígael kom til Nabals, sjá! þá hafdi hann veitslu í sínu húsi, sem Kóngaveitslu, og hjarta Nabals var kátt og hann var ædi drukkinn. Og hún lét hann ekkért vita, hvørki stórt né smátt, allt til þess ad morgni.

37. Og þad skédi um morgunin, þegar (ølid) var runnid af Nabal, þá sagdi kona hans honum frá þessu; þá dó hans hjarta í hans kropp, og hann vard sem steinn. 38. Og nú lidu hérumbil 10 dagar, þá sló b) Drottinn Nabal, svo hann dó. 39. Og þá Davíd heyrdi ad Nabal væri daudur, mælti hann: lofadur sé Drottinn, sem heyrt hefir þá svívirding er Nabal gjørdi mér og sem hélt sínum þjón frá illu, en Nabals vondsku hefir Drottinn látid bytna á sjálfs hans høfdi. Og Davíd sendi og taladi vid Abígael, til ad taka sér hana fyrir konu. 40. Og þjónar Davíds komu til Abígael í Karmel, og tøludu vid hana og søgdu: Davíd hefir sendt oss til þín, til ad taka þig handa sér fyrir konu. 41. Þá stód hún upp, og beigdi sitt andlit til jardar og mælti: sjá! þín þerna er sem ambátt, til ad þvo fætur á þjónum míns herra. 42. Og Abígael tók sig skjótt upp, og reid á asna, og 5 hennar þernur fylgdu henni, og hún fór med sendimønnum Davíds, og vard hans kona.

43. Líka tók Davíd sér Ahínóam af Jesreel, og bádar urdu hans konur. 44. En Sál gaf Míkal dóttur sína konu Davíds, Palti Laisssyni af Gallim.

## 26. Kapítuli.

Davíd sparar enn Sáls líf.

1. Og Sifítar c) komu til Sáls í Gibea og søgdu: sjá! Davíd hefir falid sig á fjallinu Hakíla austur í eydimørkinni. 2. Þá tók Sál sig upp, og fór austur í eydimørkina Síf; og med honum 3 þúsund manns útvaldir af Ísrael, til ad leita hans í eydimørkinni Síf. 3. Og Sál setti sínar herbúdir á fjallinu Hakíla sem er hjá veginum, austan til í eydimørkinni; en Davíd var í eydimørkinni, og þegar hann frétti ad Sál var kominn í eydimørkina, 4. gjørdi hann út njósnarmenn og fékk ad vita med vissu ad Sál var kominn. 5. Þá tók Davíd sig upp og kom þángad sem Sál hafdi herbúdirnar. Og Davíd sá þann stad, hvar Sál lá og Abner sonur Ners, hans hershøfdíngi d); en Sál lá í Vagnborg, og fólkid hafdi lagst í kríngum hann. 6. Og Davíd tók svo til orda, og mælti vid Abímelek Hetíta og Abísaí Serujuson, bródur Jóabs, og mælti: hvør vill fara med mér í herbúdir Sáls? Og Abísaí mælti: eg skal fara med þér. 7. Og svo kom Davíd og Abísaí til fólksins um nótt, og sjá! Sál lá sofandi í Vagnborginni, og hans spjót var rekid í jørdina til høfda honum og Abner og fólkid lá í kríngum hann. 8. Og Abísaí sagdi vid Davíd: í dag hefir Gud géfid þinn óvin í þína hønd, og láttu mig nú reka spjótid í gégnum hann nidur í jørdina med einu lagi, og eg skal ekki þurfa ad géfa honum annad (lag). 9. En Davíd sagdi til Abísaí: drep þú hann ekki! því hvør leggur svo hønd á Drottins smurda ad hann sleppi hjá straffi? 10. Og Davíd sagdi: svo sannarlega sem Drottinn lifir! nei! (eg drep hann ekki) heldur mun Drottinn slá hann; annadhvørt kémur hans dagur, svo hann deyr, eda hann fer í stríd, og fellur, 11. lángt láti Drottinn þad vera frá mér ad leggja mína hønd á Drottins smurda! Og taktú nú þarna spjótid vid høfdalagid og vatnsskálina, og látum oss fara. 12. Og svo tók Davíd spjótid

V. 35. *a.* Hebr. medtekid eda upphafid þitt andlit. V. 38. *b.* 2 Sam. 12, 15. V. 1. *c.* Kap. 23, 19. Sálm. 54, 2. V. 5. *d.* Kap. 14, 50. 17, 55.

og vatnsskálina til høfda Sáli, og þeir geingu
burt, og einginn sá þad, og einginn tók eptir
því, og einginn vaknadi; því þeir sváfu allir,
því fastur svefn af Drottni a) var á þá fallinn.
13. Og Davíd gékk til hlidar, og uppá fjalls-
brúnina lángt frá; mikid var bilid milli þeirra.
14. Og Davíd kalladi til fólksins og Abners,
sonar Ners, og mælti: svarar þú ekki Abner?
Og Abner svaradi og mælti: hvør ert þú sem
hrópar til Kóngsins? 15. Og Davíd mælti til
Abners: ertu ekki madur? og hvør er sem þú
í Israel? og því hefir þú ekki vakad yfir þín-
um herra, Kónginum? því einn af fólkinu kom
til ad drepa Kónginn, þinn herra. 16. Svo
sannarlega sem Drottinn lifir! þad er ekki gott
sem þú hefir gjørt, þér erud daudans børn, ad
þér hafid ekki vakad yfir ydar herra, Drottins
smurda. Og sjá nú til, hvar spjótid er og
vatnsskálin, sem stód vid Kóngsins høfdalag.
17. Þá þekkti Sál Davíds róm og mælti:
er þetta þín raust, sonur minn Davíd? Og Da-
víd mælti: jú! mín raust, minn herra Kon-
úngur! 18. Og hann mælti: hvørsvegna offæk-
ir þá minn herra þræl sinn? því hvad hefi eg
gjørt, og hvad íllt er í minni hendi? 19.
Og heyri þó nú minn herra Konúngur mál
síns þræls! hafi Drottinn egnt þig upp á móti
mér, svo láti menn upptendra (rjúka) matoffur;
en ef menn hafa gjørt þad, svo veri þeir bølvad-
ir fyrir Drottni, (sem valda því): ad eg má ekki
vera í Drottins erfd, og sem segja: far þú!
þjóna þú ødrum gudum! 20. En mitt blód falli
ekki á jørd lángt burtu frá Drottins augliti, því
Israels kóngur er lagdur á stad til ad elta fló,
eins og menn elta rjúpu á fjøllum. 21. Þá
mælti Sál: eg hefi syndgad, hverf aptur til baka
minn son Davíd! því eg skal nú ekki framar
gjøra þér mein, af því ad líf mitt var á þessum
degi dýrmætt í þínum augum; sjá! eg hefi breytt
heimskulega, mér hefir mikillega yfirsjest. 22.
Og Davíd svaradi og sagdi: sjá! hér er Kóngs-
ins spjót, og komi nú einn af sveinunum híngad
til ad sækja þad. 23. En Drottinn mun um-
buna sérhvørjum hans réttvísi og hans trúfesti,
þared Drottinn gaf þig í dag í mína hønd, og
eg vildi ekki leggja mína hønd á Drottins smurda;
24. Og sjá! eins og þitt líf var mikils metid í
mínum augum á þessum degi, svo mun mitt líf
mikils metid í augum Drottins, ad hann frelsi
mig úr allri þraung. 25. Og Sál mælti vid
Davíd: blessadur sértú minn son Davíd! á-
forma muntu og framkvæma! og svo fór Davíd
sína leid, en Sál snéri aptur á sinn stad.

## 27. Kapítuli.

Davíd sest ad í Siklag.

1. Og Davíd sagdi í sínu hjarta: einhvørn-
tíma tekst Sál ad drepa mig, ekkért er betra enn
ad eg fordi mér, já! eg skal flýa í Filistea land,
þá hættir Sál ad elta mig um allt Israels land
og eg slepp úr hans hendi. 2. Og svo tók
Davíd sig upp, hann og þau 6 hundrud manns
sem hjá honum vóru, og fór til Akis, b) sonar
Maoks, Kóngs í Gat. 3. Og Davíd var hjá
Akis í Gat, hann og hans menn, hvør med sínu
húsi, Davíd med bádum sínum konum Ahinó-
am frá Jesreel, og Abígael konu Nabals frá
Karmel. 4. Og þegar Sál frétti ad Davíd væri
flúinn til Gat, leitadi hann hans ekki framar.

5. Og Davíd sagdi til Akis: hafi eg fundid
nád í þínum augum, svo gefi menn mér pláts
í einhvørjum stad í landinu, ad eg búi þar, því
hvar fyrir skal þinn þénari búa hjá þér í Kon-
úngsstadnum? 6. Þá gaf Akis honum þann
sama dag Siklag c); þannig er Siklag kominn
undir Júda Kónga allt til þessa dags. 7. Og
tala þeirra daga sem Davíd bjó í landi Fili-
steanna var eitt ár og 4ir mánudir.

V. 12. *a.* Gen. 2, 21. V. 2. *b.* Kap. 21, 10. 1 Kóng. 2, 39. V. 6. *c.* Jós. 15, 31. 1 Kron 12, 1.

8. Og Davíd og hans menn fóru herfør og
gjørdu árás Gesúrítum og Girsítum og Ama-
lekítum. Þessir bjuggu í landinu frá fornøld, allt
til Súr og allt til Egyptalands. 9. Og Da-
víd gjørdi hervirki í landinu, og lét hvørki mann
né konu lifa, og tók saudi og naut og asna og
úlfalda og klædi; fór svo heim aptur og kom
til Akis. 10. Og Akis sagdi: þér hafid þó
ekki gjørt árásina í dag? Og Davíd mælti: jú,
í Júda ad sunnan til, og sudurfrá hjá Jeramel-
ítum og sudur frá hjá Kenítum. 11. En Da-
víd lét hvørki mann né konu lifa, til ad flytja
þau til Gat, því hann hugsadi, þau kynnu ad
segja eptir oss og mæla: svo hefir Davíd ad-
farid. Og sá var sidur hans allan þann tíma
sem hann bjó í Filistea landi. 12. Og Akis
trúdi Davíd og hugsadi: hann hefir gjørt sig
óvinsælann a) hjá sinni þjód, hjá Ísrael, og
hann verdur ad eilífu minn þegn.

## 28. Kapítuli.

Stríd vid Filistea. Sál leitar frétta af daudum.

1. Og þad skédi á þeim døgum, ad Filiste-
ar drógu saman mikinn her, til ad fara í stríd
vid Ísrael. Og Akis sagdi vid Davíd: vita
skaltu, ad þú verdur ad fara med mér í her-
búdirnar, þú og þínir menn. 2. Og Davíd
sagdi til Akis: svo skaltu þá reyna hvad þinn
þénari mun gjøra. Og Akis mælti til Davíds:
eg vil setja þig ávalt minn høfuds vørd.

3. (En Samúel var dáinn og allur Ísrael
hafdi grátid hann, og menn høfdu jardad hann
í hans borg í Rama. Og Sál hafdi rekid úr
landi alla galdra- og fjølkyngis-menn). 4.
Og svo samansøfnudust Filistear og komu og
settu herbúdir sínar í Sunem. Þá safnadi Sál
øllum Ísrael, og setti herbúdir sínar í Gilbóa.
5. En sem Sál sá her Filisteanna, skélkadist
hann; og hans hjarta titradi mjøg. 6. Og
Sál spurdi Drottinn, en Drottinn svaradi honum
ekki, hvørki í draumi né med ljósinu b), né fyrir
Spámannanna milligaungu. 7. Þá sagdi Sál
til sinna þénara: leitid mér ad konu sem hef-
ir tøk á ad leita frétta af daudum c), ad eg
fari til hennar og spyrji hana. Og hans þén-
arar søgdu til hans: sjá! kona nokkur er í End-
or d) sem veit ad leita frétta af daudum.

8. Og Sál gjørdi sig óþekkjanlegann, og
fór í dularbúníng, og lagdi af stad, hann og
tveir menn med honum, og þeir komu til kon-
unnar um nóttina, og hann sagdi: spádu mér
med særíngu daudra, og vek þú mér upp þann
sem eg mun nefna þér. 9. Konan svaradi
honum: sjá! þú veitst hvad Sál hefir gjørt,
ad hann hefir rekid úr landi galdramenn og
fjølkyngismenn e); og því leggur þú snøru fyrir
mitt líf, til ad deyda mig? 10. Þá sór Sál
henni vid Drottinn og mælti: svo sannarlega
sem Drottinn lifir! þig skal ekkért íllt henda
hér fyrir. 11. Og konan sagdi: hvørn á eg
ad vekja upp fyrir þig? og hann svaradi: vektu
upp Samúel fyrir mig.

12. Og sem konan sá Samúel, hljódadi
hún upp yfir sig, og mælti til Sáls, og sagdi:
því hefir þú svikid mig? þú ert Sál. 13.
Og Kóngur mælti til hennar: vert þú óhrædd!
en hvad sjer þú? Og konan sagdi vid Sál:
eg sje Gud nokkurn koma upp úr jørdunni. 14.
Og hann sagdi til hennar: hvørnig er hann
útlits? og hún sagdi: gamall madur stígur upp
og er íklæddur skikkju; þá sá Sál ad þad var
Samúel, og hneigdi andlit sitt til jardar og
laut. 15. Og Samúel mælti til Sáls: því
hefir þú ónádad mig og látid mig koma fram?

V. 12. *a.* Hebr. gjørt sig illa lyktandi Kap. 13, 4. Exód. 5, 21. V. 6. *b.* Ljós sem var á brjóstskyldi þess ædsta kénnimanns. (Sjá Ex. 28, 30. Núm. 27, 21). V. 7. *c.* Deut. 18, 11. 2 Kóng. 21, 6. 2 Kron. 33, 6. Postgb. 16, 16. *d.* Jós. 17, 11. V. 9. *e.* Ex. 22, 18. Lev. 20, 27.

Og Sál mælti: nú er eg í kröggum, því Filistear strída móti mér, og Gud er frá mér vikinn, og svarar mér ekki framar, hvörki fyrir milligaungu Spámannanna né í draumum. Því lét eg kalla þig, til ad segja mér, hvad eg á ad gjöra. 16. Og Samúel mælti: og því spyr þú mig þegar Drottinn er frá þér vikinn, og ordinn þinn óvin? 17. Og Drottinn hefir gjört eins og hann hefir sagt fyrir minn munn. Og Drottinn hefir rifid a) Kóngs ríkid úr þinni hendi og géfid þad ödrum, honum Davíd. 18. Eins og þú hefir ekki hlýdt Drottins raust, og ekki gjört fullnustu hans straungu reidi vid Amalek, þess vegna gjörir Drottinn slíkt nú í dag. 19. Og Drottinn mun géfa Israel med þér í Filistea hönd, og á morgun verdur þú hjá mér og þínir synir; og Israels her mun Drottinn géfa í Filistea hönd. 20. Þá féll Sál, svo lángur hann var, til jardar, og vard mjög hræddur vid Samúels tal; einginn máttur var heldur í honum, því hann hafdi á eingu nærst allan þann dag og alla þá nótt. 21. Og sem konan kom til Sál og sá ad hann var mjög frá sér, mælti hún til hans: sjá! þín þerna hefur hlýdt þinni raust, og eg hefi vogad mínu lífi b), og hlýdt þeim ordum, sem þú taladir vid mig; 22. en hlýddu þá líka ordum þinnar þernu, og leyfdu mér ad leggja fyrir þig bita brauds og et, svo kraptur sé í þér, og ad þú gétir geingid þína leid. 23. En hann færdist undan og mælti: eg et ekki! þá neyddu hans þénarar hann og líka konan; og hann gégndi þeirra raust, og stód upp af jördinni, og setti sig á rúmid. 24. Og konan hafdi alikálf í húsinu, honum slátradi hún strax, tók mjöl og bakadi þar af ósýrdar kökur c). 25. Og hún bar þetta fyrir Sál og hans þénara, og þeir átu, og tóku sig upp, og lögdu af stad þá somu nótt.

## 29. Kapituli.

*Filistear láta Davíd frá sér.*

1. Og Filistear samansöfnudu öllum sínum her til Afek, en Israel hafdi herbúdir sínar vid brunninn hjá Jesreel. 2. Og höfdíngjar Filisteanna fóru fram hjá, hundrudum og þúsundum saman, og Davíd og hans menn fóru seinastir med Akis. 3. Þá sögdu höfdíngjar Filisteanna: hvar til skulu þessir Ebreskir? Og Akis sagdi til Filisteanna höfdíngja: er þad ekki Davíd, þegn Sáls Israels Konúngs, sem med mér hefir verid ædi leingi, eda jafnvel ár, og eg hefi ekkért hjá honum fundid ískyggilegt frá því hann kom og allt til þessa dags. 4. En höfdíngjar Filistea urdu illir og sögdu vid hann: láttu manninn frá þér, svo hann fari á sinn stad, hvar þú hefir sett hann, hann fari ekki med oss í bardagann, svo hann snúist ei á móti oss í orustunni; því hvar med gétur hann komid sér í sátt vid sinn herra? mun ei med hausum þessara manna? 5. Er þetta ekki Davíd um hvörn þær súngu í vísunni og sögdu: Sál feldi sína þúsund, og Davíd sín tíu þúsund d)?

6. Þá kalladi Akis Davíd fyrir sig og sagdi til hans: svo sannarlega sem Drottinn lifir! þú ert rádvandur, og í mínum augum var þinn inngángur og útgángur gódur hjá mér í herbúdunum, eg hefi ekkért íllt hjá þér fundid, sídan þú komst til mín allt til þessa dags, en höfdíngjunum lítst ekki á þig. 7. Og hverf nú til baka og far í fridi, svo þú gjörir ekkért þad, sem íllt er í augum Filisteanna höfdíngja. 8. Og Davíd sagdi vid Akis: en hvad hefi eg gjört, og hvad hefir þú fundid hjá þjóni þínum, sídan eg kom til þín allt til

V. 17. *a.* Kap. 15, 28. 1 Kóng. 11, 11. V. 21. *b.* Kap. 19, 5. Dóm. 5, 18. V. 24. *c.* Gen. 18, 6. V. 5. *d.* Kap. 18, 7.

þessa dags, ad eg má ekki koma og strída móti
óvinum míns herra Konúngsins. 9. Og Akis
svaradi og mælti til Davíds: eg veit þad, þú
ert í mínum augum gódur sem Guds Eing-
ill a); en Filisteanna høfdíngjar søgdu: hann
skal ekki fara med oss í strídid. 10. Rís þú
nú snemma á morgun, ásamt þénurum þíns
herra sem med þér komu, og farid snemma á
fætur á morgun þegar bjart er ordid, og farid
á burt. 11. Svo reis Davíd snemma, hann
og hans menn, til þess ad fara burt um morg-
uninn og hverfa heim aptur í Filistea land.
En Filistear fóru á móti Israel.

## 30. Kapítuli.

Davíd nær aptur Siklag.

1. Og þad skédi þá Davíd og hans menn
komu til Siklag á þridja degi, þá høfdu Ama-
lekítar gjørt áhlaup þar sydra og á Siklag,
og unnid Siklag og brennt med eldi, 2. høfdu
hertekid þær konur sem þar voru og slutt í burt
smáar og stórar; þeir høfdu eingann mann
drepid heldur hertekid, og voru svo farnir
sína leid. 3. Og er Davíd og hans menn komu
til stadarins, sjá! þá var hann brenndur med
eldi, og þeirra konur og synir og dætur voru
herteknar. 4. Þá upphóf Davíd og hans fólk,
sem med honum var, sína raust og þeir grétu,
þángad til einginn máttur var leingur í þeim
til ad gráta. 5. Bádar konur Davíds høfdu
verid herteknar, Ahinoam, frá Jesreel, og Abí-
gael, kona Nabals, Karmelíta b). 6. Og Da-
víd var í mestu krøggum, því fólkid ætladi ad
grýta hann c), því allt fólkid var mikid sorg-
fullt, hvør einn vegna sona sinna og dætra
sinna. En Davíd styrkti sig vid Drottinn,
sinn Gud.

7. Og Davíd sagdi vid prestinn Abíatar
son Abímeleks: kom þú híngad med høkulinn!
og Abíatar færdi Davíd høkulinn. 8. Og
Davíd spurdi Drottinn, og mælti: á eg ad
elta þennan skara? mun eg ná þeim? og hann
svaradi: eltu! því þú munt ná þeim, og ná
af þeim. 9. Þá lagdi Davíd af stad, hann
og þeir 6 hundrud menn sem hjá honum voru;
en sem þeir komu ad læknum Besor, svo námu
nokkrir þar stadar; 10. en Davíd elti hann
og 4 hundrud manns; en 2 hundrud manns
urdu þar eptir, því þeir voru ofþreyttir til ad
fara yfir lækinn.

11. Og þeir fundu Egyptskann mann á
mørkinni, og leiddu hann fyrir Davíd, og gáfu
honum braud, og hann át, og þeir gáfu hon-
um vatn ad drekka. 12. Þeir gáfu honum
og sneid af fíkjukøku, og tvær rúsínuklær, og
hann át, og hans andi hvarf til hans aptur,
því hann hafdi ekkért braud etid og ekkért vatn
drukkid í þrjá daga og þrjár nætur. 13. Og
Davíd spurdi hann: hvør á med þig? og hvad-
an ert þú? og hann mælti: eg em Egyptskur
únglíngur, þræll Amalekíta nokkurs, og húss-
bóndi minn yfirgaf mig hér fyrir þrem døgum,
af því eg vard veikur. 14. Vér gjørdum á-
hlaup sudur í land á Kretíta og á land sem Júda
tilheyrir, og sudur á Kaleb d); og Siklag brend-
um vér med eldi. 15. Og Davíd mælti til
hans: viltu ekki vísa mér á þennan herflokk?
og hann sagdi: sver þú mér vid Gud, ad þú
skulir ekki drepa mig og ekki framselja mig í
hønd míns herra, þá skal eg vísa þér á
herflokkinn.

16. Og hann vísadi þeim veg, og sjá! þeir
voru hér og hvar um alla mørkina, átu og
drukku og héldu sér gledidag, vegna þess mikla
herfángs sem þeir høfdu tekid í Filistealandi
og í Júdalandi. 17. Og Davíd bardi á þeim

V. 9. *a.* 2 Sam. 14, 17. 19, 27. V. 5. *b.* Kap. 25, 42. 27, 3. V. 6. *c.* Ex. 17, 4. Lev. 14, 10. V. 14. *d.* Þ. e. Kalebs lendur. Jós. 15, 13.

frá því í døgun og allt til kvølds á ødrum degi, og einginn madur komst undan af þeim nema 4 hundrud úngir menn sem stigu á bak úlføldum og flýdu. 18. Þannig nádi Davíd því øllu aptur sem Amalekítar høfdu tekid, og bádum sínum konum nádi Davíd aptur. 19. Og eingann mann vantadi hvørki smáann né stórann, hvørki sonu né dætur, og ekkért af herfánginu sem þeir høfdu tekid; med allt kom Davíd aptur. 20. Og Davíd tók alla saudi og naut, menn fóru undan fénadinum og søgdu: þetta er Davíds herfáng. 21. Og sem Davíd kom til þeirra 2 hundrud manna, sem þreytst høfdu, svo þeir urdu eptir af Davíd, og sem hann skildi eptir hjá Besors-læk, þá fóru þeir mót Davíd og fólkinu sem med honum var, og Davíd gékk til fólksins og spurdi hvørnig því lidi. 22. Þá birjudu vondir og einkisnýtir menn sem med Davíd høfdu farid, á því ad segja: fyrst þeir fóru ekki med oss, skulu þeir ekkért hafa af herfánginu sem vér høfum nád af óvinunum, nema hvør einn konu sína og sonu sína, þad meiga þeir taka og fara svo. 23. Þá sagdi Davíd: eigi skulud þér brædur mínir svo fara med þad sem Drottinn hefir oss gésid, og vardveitt oss til handa, hann sem gaf þann skara sem oss hafdi yfirfallid í vora hønd! 24. Og hvør mun í þessari grein verda á ydar máli? Eins stór og þeirra hlutdeild verdur sem í strídid fóru, svo stór sé og þeirra hlutdeild sem hjá saráungurnum voru. Øllu skal skipta jafnt a). 25. Og svo skédi þad upp frá þeim degi ávalt, og hann gjørdi þad ad løgum og reglu fyrir Israel, sem viðheldst enn.

26. Og sem Davíd kom til Siklag, sendi hann (nokkud) af herfánginu þeim eldstu í Júdeu, sínum vinum og mælti: sjá! þar er gáfa ydur til handa af herfángi Drottins óvina. 27. Hann sendi þeim í Betel, þeim í Ramat-Negeb og þeim í Jatír. 28. Og þeim í Aroer, og þeim í Sifmot og þeim í Estemóa, 29. og þeim í Rakal og þeim í stødum Jeramelíta, og þeim í stødum Keníta b). 30. Og þeim í Horma, og þeim í Kor-Asan og þeim i Atak. 31. Og þeim í Hebron, og á øllum stødum sem Davíd hafdi farid um, hann og hans menn.

## 31. Kapítuli.

Sál og Jónatan falla.

1. En Filistear børdust vid Israel, og Israels menn flýdu fyrir Filisteum, og margir féllu á Gilboa fjøllum c). 2. Og Filistear eltu Sál og syni hans og feldu Jónatan og Abínadab og Malkísúa syni Sáls. 3. Og bardaganum halladi á Sál, skotmennirnir hittu hann, menn med boga, og sár bárust á hann af skyttunum; 4. Þá mælti Sál vid skjaldsvein sinn: bregd þú þínu sverdi og legg mig í gégn med því, svo þessir óumskornu komi ekki og sálgi mér og svívirdi; en hans skjaldsveinn vildi ekki, þá tók Sál sverdid og lét fallast á þad. 5. Og sem hans skjaldsveinn sá ad Sál var daudur, svo lét hann og fallast á sitt sverd og dó med honum. 6. Þannig dó Sál og hans þrír synir, og hans skjaldsveinn, og allir hans menn gjørsamlega þann sama dag d). 7. Og sem Israels menn hérnamegin vid sléttlendid og hérnamegin Jórdanar, sáu, ad Israels menn flýdu og ad Sál og hans synir voru daudir, yfirgáfu þeir stadina og flýdu, og Filistear komu og bjuggu í þeim.

8. Daginn eptir komu Filistear ad fletta klædum þá sem fallnir voru, og fundu þá Sál og hans þrjá syni fallna á Gilboa fjalli, 9. og þeir hjuggu af honum høfudid og tóku vopn hans og verjur og sendu um kríng í Filistea

V. 24. a. Núm. 31, 27. Jós. 22, 8. V. 29. b. Kap. 27, 10. V. 1. c. Kap. 28, 4. V. 6. d. 1 Kron. 10, 6. 7.

landi, til ad auglýsa bodskapinn í þeirra Goda
húsum og fyrir fólkinu. 10. Og þeir løgdu
hans vopn í Astarots hús, en lík hans festu
þeir á borgarvegginn í Betsan. 11. Þetta
fréttu innbyggjararnir í Jabes í Gílead hvørnig
Filistear høfdu farid med Sál, 12. og þeir tóku
sig til allir vopnfærir, og geingu alla nóttina,
og tóku líkama Sáls, og líkama hans sona af
borgarveggnum í Betsan, komu til Jabes og
brendu þá þar. 13. Og þeir tóku þeirra bein
og grófu þau hjá lundinum í Jabes og føst-
udu í 7 daga.

# Önnur Samúels Bók.

## 1. Kapituli.

*Davíd harmar Sál og Jónatan.*

1. Og þad skédi, eptir ad Sál var daud-
ur, og eptir ad Davíd hafdi lagt ad velli Ama-
lekíta og var kominn heim aptur, þá var Da-
víd 2 daga í Siklag. 2. Og þad skédi á
þridja degi, ad madur kom af her Sáls, í
rifnum klædum, og hafdi ausíd mold yfir høf-
ud sér; og sem hann kom til Davíds, féll hann
til jardar, og tilbad. 3. Og Davíd mælti til
hans: hvadan kémur þú? og hann svaradi
honum: eg komst undan af Israels her. 4.
Davíd sagdi til hans: segdu mér þá, hvørnig
geingur þad? og hinn mælti: fólkid er flúid úr
bardaganum og margir eru líka fallnir og
drepnir, og líka eru þeir Sál og Jónatan daudir.
5. Og Davíd mælti vid þann únga mann sem
færdi honum þessa frétt: hvørnig veitstu þad
ad Sál og Jónatan hans son eru daudir? 6.
Og sá úngi madur, sem sagdi tídindin, mælti:
af tilviljun kom eg á fjallid Gilboa, og sjá!
þar stód Sál, og studdist vid sitt spjót, og sjá!
vagna og reidmanna lid sókti ad honum. 7.
Hann snéri sér þá vid og leit mig og kalladi
á mig, og eg svaradi: hér em eg, 8. og hann
mælti vid mig: hvør ert þú? og eg svaradi:
eg er Amalekíti. 9. Og hann sagdi vid mig:
kom þú til mín og deyd þú mig; því nú þreyng-
ir ad, en med øllu lífi er eg. 10. Þá gékk
eg ad honum og deyddi hann, því eg vissi vel
ad hann gat ekki lifad eptir sitt fall, og tók
kórónuna sem var á hans høfdi, og armspeing-
urnar af hans armi, og kém nú med þær híng-
ad til míns herra. 11. Þá reif Davíd sín
klædi a), og líka allir þeir menn sem hjá hon-
um voru. 12. Og þeir kveinudu og veinudu og
føstudu allt til kvølds, sakir Sáls og hans sonar
Jónatans, og sakir Drottins fólks og Israels
húss, ad þeir høfdu fallid fyrir sverdi.

13. Og Davíd sagdi vid þann únga mann
sem færdi honum tídindin: hvadan ert þú? og
hann svaradi: eg em sonur Amalekíta nokkurs
sem hér er útlendur. 14. Og Davíd sagdi til
hans: hvørnig gatstu verid svo djarfur ad legg-
ja hønd á Drottins smurda og deyda hann?
15. Og Davíd kalladi einn af sínum sveinum,
og mælti: kom þú hér! og lífláttu þennan mann!
og hann vann á honum svo hann dó. 16.
Og Davíd sagdi til hans: þitt blód sé yfir
þínu høfdi! því þinn munnur vitnadi móti
þér b), þá þú sagdir: eg hefi deydt Drott-
ins smurda.

V. 11. a. Gen. 37, 34. Jós. 7, 6. V. 16. b 1. Kóng. 2, 23. Sálm. 64, 9.

17. Og Davíd kvad þetta sorgar kvædi ept-
ir Sál og Jónatan hans son, 18. og skipadi
ad kénna Júda sonum þetta (kvædi) um bog-
ann, sjá! þad er skrifad í bók þeirra gódu a).
19. Á þínum hædum, Israel! er rádþrid lagt
ad velli, hvørnig eru hetjurnar fallnar. 20.
Segid ekki frá því í Gat, kunngjørid þad ekki
á Askalons strætum, svo dætur Filisteanna fagni
ekki, dætur þeirra óumskornu hlakki ekki yfir því.

21. Gilboa fjøll! hvørki døgg né regn komi
á ykkur! ekki séu þar akrar frumgróda fórnar!
því þar var snarad kappanna skildi, Sáls skildi
eins og hann hefdi ei verid smurdur med vid-
smjøri. 22. Jónatans bogi hrøkk aldrei til
baka án blóds þeirra feldu, án fitu kappanna,
Sáls sverd kom aldrei svo búid aptur. 23.
Sál og Jónatan, þeir elskulegu og ástúdlegu í
sínu lífi, sem ekki skildu í daudanum, þeir voru
fljótari enn ernir, sterkari enn ljón. 24. Isra-
els dætur, grátid Sál! hann klæddi ydur í
skarlat indislega, gull-prýdi setti hann á ydar
fatnad! 25. Hvørnig eru kapparnir fallnir,
midt í bardaganum. Jónatan lagdur í gégn
á þínum hædum. 26. Eg kénni til sakir þín,
bródir minn Jónatan! mjøg varstu mér indæll,
meir mat eg þína elsku, enn kvenna elsku. 27.
Æ! kapparnir eru fallnir, og hertýgin eru tøpud.

## 2. Kapítuli.

Davíd verdur Konúngur í Júdeu. Isboset í Israel.

1. Og þad skédi þar eptir ad Davíd
spurdi Drottinn b) og mælti: skal eg fara hédan
til einhvørrar borgar í Júdeu? og Drottinn svar-
adi honum: far þú! og Davíd spurdi: hvørt
skal eg fara? og hann sagdi: til Hebron. 2.
Og svo fór Davíd þángad, og líka hans tvær
konur Ahinoam, frá Jesreel, og Abígael kona
Nabals, Karmelíta c), 3. og líka tók Davíd
menn, sem hjá honum voru, med sér, hvørn einn
og hans hús, og þeir bjuggu í Hebrons stød-
um. 4. Þá komu Júda menn og smurdu
Davíd Konúng yfir Júda hús.

Og menn søgdu Davíd frá og mæltu: menn-
irnir í Jabis í Gilead d) eru þad sem hafa
jardad Sál. 5. Þá sendi hann sendiboda til
mannanna í Jabes í Gilead og mælti til þeirra:
verid blessadir af Drottni ad þér gjørdud þetta
kjærleiks verk á ydar herra, á Sál og grófud
hann. 6. Sýni nú Drottinn ydur elsku og trú-
festi e), og líka vil eg gjøra ydur gott, sakir
þess þér gjørdud slíkt. 7. Og styrkid nú ydar
hendur og verid røskir menn, þó ad Sál ydar
herra sé daudur, hefir Júda hús smurt mig
Konúng yfir sig.

8. En Abner, sonur Ners, hershøfdíngi
Sáls f) tók Isboset, son Sáls, og fór med
hann yfir til Mahanaim, 9. og gjørdi hann
ad Konúngi yfir Gilead, Asuri, Israel, Efraim
og Benjamín og yfir øllum Israel. 10. Is-
boset sonur Sáls var fertugur þá hann vard
Konúngur yfir Israel, og tvø ár ríkti hann.
Einasta Júda hús hélt sig til Davíds; 11. og
tala þeirra daga sem Davíd var Konúngur í Hebr-
on yfir Júda húsi, var 7 ár og sex mánudir.

12. Og Abner sonur Ners, fór med þénur-
um Isbosets, Sáls sonar frá Mahanaim til
Gibeon. 13. Og Jóab sonur Seruja, og þjón-
ar Davíds, drógu líka út, og þeir hittust vid
Gibeons vatn, og þessir løgdust þessa megin og
hinir hinumegin vatnsins. 14. Þá sagdi Abn-
er vid Jóab: láttu sveinana standa upp og
leika fyrir oss! og Jóab mælti: þeir meiga
þad. 15. Og svo stódu þeir upp og geingu
fram eptir tølu, 12 fyrir Benjamín og Isbo-
set son Sáls, og 12 af Davíds þénurum. 16.
Og hvør greip hendi í annars høfud, og lagdi

V. 18. *a.* Jós. 10, 13. bók þeirra gódu eda hreinskilnu. V. 1. *b.* 1 Sam. 30, 8. 23, 2. 4. V. 2. *c.* 1 Sam. 25, 42. 27, 3. V. 4. *d.* 1 Sam. 31, 12. V. 6. *e.* Rut. 1, 8. V. 8. *f.* 1 Sam. 14, 50. 17, 55.

sverd í annars síðu, og þeir féllu hvør med ødrum. Og menn kølludu þann sama stað: Helkat-Hasurim (Skurdar akur) hann liggur hjá Gíbeon. 17. Og á þeim degi var hardur bardagi, Abner og Ísraels menn voru sigradir af Davíðs þénurum.

18. Þar voru þrír Serúju synir, Jóab, Abísai og Asahel a). Asahel var fótfrár sem rádýr á mørkinni b). 19. Og Asahel rann eptir Abner og vék hvørki til hægri né vinstri, heldur elti hann einann, 20. þá snéri Abner sér við og mælti: ert þú Asahel? og hann svaradi: eg em. 21. Abner sagdi til hans: vík annadhvørt til vinstri eda hægri, og nádu einhvørjum úngu mannanna, og flettu hann vopnum hans; en Asahel vildi ei frá honum fara. 22. Og Abner mælti aptur vid Asahel: vík þú burt frá mér! því skyldi eg leggja þig ad velli? hvørnig gjæti eg þá litid uppá Jóab bródur þinn. 23. En hann vildi ekki víkja. Þá lagdi Abner hann í kvidinn med spjótsbroddinum c), svo út kom um bakid, og hann féll og andadist med sama, og þad skédi, ad hvør sem kom á þann stad, hvar Asahel hafdi fallid og dáid, hann nam þar stadar. 24. Og Jóab og Abísai eltu Abner, og sól gékk undir; þá komu þeir ad hædinni Amma sem liggur fyrir framan Gía, á leidinni til Gíbeons audnar. 25. Þar søfnudust synir Benjamíns ad Abner og urdu flokk korn, og numu stadar efst á hól nokkrum. 26. Þá kalladi Abner til Jóabs, og mælti: skal þá sverdid allt af tortína, veitst þú ekki, ad seinast kémur heipt? ætlar þú leingi ad draga ad segja fólkinu ad snúa frá ofsókn þess brædra? 27. Og Jóab mælti: svo sannarlega sem Gud lifir! hefdir þú ekki talad (sjá v: 14). þá hefdi fólkid frá því í morgun haldid sér frá ad ofsækja hvør annann. 28. Sídan blés Jóab í básúnu d), og allt fólkid stødvadist, og þeir eltu ekki Ísrael meir, og børdust ekki framar.

29. En Abner og hans menn geingu yfir sléttlendid alla þá sømu nótt, og fóru yfir Jórdan og geingu yfir allt héradid Bítron e) og komu til Mahanaim. 30. Og Jóab hætti ad elta Abner og safnadi saman fólkinu, þá søknudu menn 19 manna af Davíðs þénurum, og Asahels. 31. En Davíðs þénarar høfdu lagt ad velli 360 af Benjamínítum og Abners mønnum, sem daudir voru. 32. Og þeir tóku Asahel og jørdudu hann hjá fødur hans í Betlehem; en Jóab og hans menn voru á ferd alla nóttina, og komu til Hebron í døgun.

## 3. Kapítuli.

Børn Davíðs. Abner fellur frá Ísbóset og er drepinn af Jóab.

1. Og strídid var lángt milli Sáls húss og Davíðs húss; en Davíðs hús efldist meir og meir f); en Sáls húsi hnignadi meir og meir. 2. Davíð fæddust synir í Hebron g), hans frumgétníngur var Amnon med Ahínóam frá Jesreel; 3. hans annar son var Kiliab h) med Abígael, konu Nabals, Karmelítans, og sá þridji Absalon, sonur Maaka, dóttur Talmais, Kóngsins í Gesur i); 4. og sá fjórdi Adonía, sonur Hagits k), og sá fimti Safatía, sonur Abítals, 5. og sá sjøtti Jetream med Églu, konu Davíðs. Þessir fæddust Davíð í Hebron.

6. En á medan þessi ófridur var milli Sáls húss og Davíðs húss, fylgdi Abner fastlega Sáls húsi. 7. Og Sál hafdi átt hjákonu ad nafni Rispa, dóttur Ajas l). Og Ísbóset sagdi vid Abner: því hefir þú lagt lag þitt vid hjá-

V. 18. *a.* 1 Kron. 2, 16. *b.* 1 Kron. 12, 8. Sálm. 18, 34. V. 23. *c.* Kap. 3, 27. V. 28. *d.* Kap. 18, 16. 20, 22. V. 29. *e.* Sal: Loskv. 2, 17. V. 1. *f.* Kap. 5, 10. V. 2. *g.* 1 Kron. 3, 1. V. 3. *h.* Kallast annars Daniel, 1 Kron. 3, 1. *i.* Kap. 13, 37. V. 4. *k.* 1 Kóng. 1, 5. 6. V. 7. *l.* Kap. 21, 8.

konu fødur míns? 8. Þessum ordum Ísbó-
sets reiddist Abner ákaflega og mælti: er eg þá
nokkur hundshaus a) sem haldi med Júda? En
nú sýni eg elsku húsi Sáls, fødur þíns, hans
brædrum og hans vinum, og hefi ekki fram-
selt þig í Davíds hønd; og þó ávítar þú mig
í dag søkum misgjørníngs med þessari kvinnu.
9. Gud gjøri Abner þad og þad og enn frem-
ur b)! eins og Drottinn hefur svarid Davíd,
svo skal eg vid hann gjøra, 10. flytja Koníng-
dóminn frá húsi Sáls, og reisa Davíds hásæti
yfir Ísrael og Júda frá Dan til Bersaba c).
11. En hann (Ísbóset) gat ekki svarad Abner
einu ordi, því hann var hræddur vid hann.

12. Þá sendi Abner sendimann til Davíds,
en fór ei sjálfur, og sagdi: hvør á landid? og
mælti: gjør þá sáttmála vid mig, og sjá! mín
hønd skal vera med þér, ad snúa øllum Ísrael
til þín. 13. Hann (Davíd) svaradi: vel og
gott! eg vil gjøra sáttmála vid þig; eins krefst
eg af þér, ad þú sjáir ekki mitt auglit fyrr
en þú færir mér Mikal dóttur Sáls, þegar þú
kémur ad sjá mitt auglit. 14. Og Davíd
gjørdi sendimenn til Ísbósets sonar Sáls, og
mælti: géf mér Mikal, konu mína, sem eg festi
mér fyrir 100 yfirhúdir Filisteanna d). 15.
Þá gjørdi Ísbóset menn frá sér, og lét taka
hana frá manninum, frá Paltíel Laissyni e),
16. og madur hennar gékk med henni og grét
á eptir henni allt til Bahurim. Þá mælti
Abner vid hann: fardu nú heim aptur! og svo
snéri hann heimleidis.

17. Eptir þad taladi Abner vid Ísraels øld-
únga og mælti: ádur f) hafid þér viljad
taka Davíd til Kóngs yfir ydur, 18. gjørid
þad þá nú. Því Drottinn hefir sagt um Da-
víd: fyrir hønd míns þénara Davíds vil eg
frelsa mitt fólk Ísrael af hendi Filisteanna og af
hendi allra þess óvina. 19. Abner taladi og vid
Benjaminítana; og fór sømuleidis ad tala vid
Davíd í Hebron um allt þad sem Ísrael og
Benjamíns húsi féll vel í géd. 20. En sem
Abner kom til Davíds í Hebron, og med hon-
um 20 menn, gjørdi Davíd Abner og þeim
mønnum sem med honum voru heimbod. 21.
Og Abner sagdi vid Davíd: eg vil taka
mig til, og fara, og safna øllum Ísrael til míns
herra Koníngsins, ad þeir gjøri vid þig sátt-
mála, og þú verdir Kóngur yfir øllum sem þín
sála girnist. Og svo gaf Davíd Abner farar-
leyfi, og hann fór í fridi.

22. En sjá! þjónar Davíds og Jóab komu
heim frá hernum, og høfdu medferdis mikid
herfáng og Abner var ekki hjá Davíd í He-
bron, því hann hafdi géfid honum ordlof, og
hann var farinn í fridi. 23. Þegar Jóab og
allur herinn, sem med honum var, kom, færdu
menn Jóab þessi tídindi: Abner sonur Ners
kom til Kóngsins, og hann hefir géfid honum
fararleyfi, og hann er farinn í fridi. 24. Þá
gékk Jóab fyrir Koníng og mælti: hvad hefir
þú gjørt? sjá! Abner kom til þín, því hefir
þú géfid honum fararleyfi, svo ad hann er far-
inn? 25. Þú þekkir Abner Nersson; hann
er híngad kominn til ad svíkja þig, til ad þekk-
ja þinn inngáng og útgáng, og til ad frétta
allt sem þú hefir fyrir stafni. 26. Og Jóab
gékk út frá Davíd og sendi menn eptir Abner,
og þeir komu med hann til baka frá brunnin-
um Hasíra — en Davíd vissi ekki af þessu. —

27. En sem Abner var aptur kominn til
Hebron, leiddi Jóab hann afsídis í borgarhlid-
inu eins og hann vildi tala vid hann heimug-
lega, og lagdi hann þar í kvidinn g) fyrir blód
(dráp) Asahels bródur síns, svo hann dó. 28.
En sem Davíd þar eptir fékk þetta ad vita,

V. 8. *a.* 1 Sam. 17, 43. V. 9. *b.* v. 35. V. 10. *c.* 1 Kóng. 4, 25. V. 14. *d.* 1 Sam. 18, 27. V. 15. *e.* 1 Sam. 25, 44. V. 17. *f.* Hebr. bædi í gjær og í fyrra dag. V. 27. *g.* Kap. 20, 14.

mælti hann: saklaus em eg og mitt ríki fyrir Drottni ad eilífu af blódi Abners Nerssonar; 29. Komi þad yfir høfud Jóabs, og yfir allt hans fødurs hús, aldrei vanti í Jóabs húsi framarmenn og holdsveika, aldrei þá sem gángi vid hækjur, falli fyrir sverdi, og vanti atvinnu. 30. En Jóab og Abísaí bródir hans høfdu myrdt Abner, af því ad hann drap bródur þeirra Asahel á fundinum, hjá Gíbeon.

31. Og Davíd mælti vid Jóab og vid allt fólkid sem hjá honum var: sundurrífid ydar klædi, og leggid sekki um ydur, og syrgid Abner. Og Davíd Konúngur gékk eptir líkbørunum. 32. Og þeir jørdudu Abner í Hebron, og Kóngurinn æpti hástøfum, og grét vid Abners grøf, og allt fólkid grét. 33. Og Konúngurinn gjørdi sorgarljód a) eptir Abner, og mælti: vard þá Abner ad deya eins og dárinn? 34. Þínar hendur voru aldrei bundnar, þínir fætur ekki settir í stokk. Þú ert fallinn eins og menn falla fyrir nídíngum. Þá grét fólkid enn meir yfir honum. 35. Og allt fólkid gékk inn til ad fá Davíd til ad eta medan dagur var, en Davíd sór og mælti: Gud gjøri mér þad og enn fremur b) ef eg smakka braud eda nokkud annad, fyrir sólarlag. 36. Og allt fólkid sá þad, og því líkadi þad; allt sem Kóngurinn gjørdi, gédjadist øllu fólkinu vel. 37. Og allt fólkid tók eptir, og allur Israel á þeim sama degi, ad Konúngur var ei valdur ad því ad Abner sonur Ners var deyddur. 38. Og Konúngur mælti vid sína þénara: vitid þér ekki ad á þessum degi er fallinn høfdíngi og mikill madur í Israel; 39. en eg em veiklida og ný smurdur til Kóngs, og þessir menn, Seruja synir, eru voldugri enn eg. Drottinn endurgjaldi þeim sem íllt adhefst eptir hans vondsku!

V. 33. *a.* Kap. 1, 17. V. 35. *b.* v. 9.

## 4. Kapítuli.

Isbóset myrdtur.

1. En sem sonur Sáls heyrdi ad Abner væri daudur í Hebron, féllust honum hendur, og allur Israel skélkadist. 2. En sonur Sáls hafdi tvo herforíngja, annar hét Baena og hinn Rekab, og þeir voru synir Rimmons Berotita, af Benjamíns kynþætti; því Berot reiknast líka med Benjamíns eign. (3. Og Berotitarnir voru flúnir til Getajim, og héldu þar til, sem framandi, allt til þessa dags). 4. Og Jónatan sonur Sáls átti fóthrumann son; hann var fimm ára gamall, þegar fregnin kom um Sál og Jónatan, frá Jesreel: þá tók fóstra hans hann, og flúdi; og af því hún flýdi med skyndi, féll hann, og vard fótlama, og nafn hans var Mefibóset. 5. Og synir Rimmons Berotitans, Rekab og Baena, løgdu af stad, og komu, þá heitast var dags, í hús Isbósets, þá hafdi hann lagt sig um middegid. 6. Þeir geingu inn í húsid ad sækja hveiti og løgdu hann þar í kvidinn; og Rekab og bródir hans Baena, komust undan. 7. Þeir høfdu komid í húsid þá hann lá í sæng sinni, í sínu svefnherbergi, unnu á honum og drápu hann og hjuggu af honum høfudid, og tóku hans høfud, og fóru veginn yfir sléttlendid alla nóttina. 8. Og þeir færdu Davíd í Hebron Isbósets høfud, og mæltu vid Kónginn: sjá! þarna er Isbósets høfud, sonar Sáls þíns fjandmanns, sem sat um líf þitt. Og svo hefir Drottinn í dag hefnt fyrir minn herra Konúnginn á Sál og hans syni.

9. Þá svaradi Davíd Rekab og Baena bródur hans, sonum Rimmons Berotitans og mælti til þeirra: Svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem frelsadi líf mitt úr øllum háska. 10. Þann sem færdi mér tídindin og mælti: Sál er daudur, og hugsadi, ad hann færdi mér góð tídindi, hand-

tók eg og drap í Siklag, til ad umbuna honum
tídindin. 11. Skyldi eg þá ekki miklufremar
nú, þegar óbóta menn hafa myrdt réttlátann
mann í hans eigin húsi og í hans sæng, krefjast
hans blóds af ydar hendi, og afmá ydur af
jørdinni? 12. Og svo baud Davíd sínum þénur-
um ad aflífa þá, og þeir gjørdu svo, og hjuggu
af þeim hendur og fætur, og heingdu þá upp
hjá Hebrons vatni; en Isbósets høfud tóku þeir
og grófu þad í Hebron í Abners grøf a).

## 5. Kapituli.

Davíd verdur Kóngur í Israel. Jerúsalem tekin.
Davíds konur og synir. Stríd vid Filistea.

1. Og allar Israels ættkvíslir komu til Da-
víds í Hebron b) og mæltu: sjá! vér erum
þín bein og þitt hold c), 2. já, ádur fyrri, þeg-
ar Sál var Kóngur yfir oss, varst þú sá sem
leiddir Israel út og inn, og Drottinn hefir
sagt vid þig: þú skalt vera hyrdir míns fólks
Israels, og þú skalt vera høfdíngi yfir Israel.
3. Og allir Oldúngar Israels komu til Kóngs-
ins í Hebron, og Davíd Konúngur gjørdi vid
þá sáttmála frammi fyrir Drottni í Hebron,
og þeir smurdu Davíd til Konúngs yfir Isra-
el d). 4. Þrjátíu ára gamall var Davíd þá
hann vard Konúngur, og hann ríkti 40 ár e).
5. I Hebron ríkti hann 7 ár og 6 mánudi yf-
ir Júda (ættkvísl) og í Jerúsalem ríkti hann
33 ár yfir øllum Israel og Júda.

6. Og Kóngurinn og hans menn fóru herfør
til Jerúsalem móti Jebúsítum, sem bjuggu í
landinu. Og menn søgdu vid Davíd: þú munt
ei komast þar inn, heldur munu þeir blindu og
høltu stansa þig! þad er ad segja: Davíd mun
ekki komast hér inn. 7. En Davíd nádi kastal-
anum Síon, þad er Davíds borg. 8. Og Da-
víd vard þad ad ordum sama dag: hvør sem
vinnur Jebúsítana og kémst ad vatnsrennunum
og ad þeim høltu og blindu, sem Davíd hatar,
(sá skal fá laun) þadan er máltækid: blindir
og haltir koma ekki inní húsid. 9. Og Davíd
bjó í kastalanum og kalladi hann Davíds borg,
og byggdi vegg allt um kríng frá Milló og þar
innávid f). 10. Og Davíd elfdist meir og
meir, og Drottinn, Gud allsherjar, var med hon-
um. 11. Og Hiram Konungur í Tyrus sendi
menn til Davíds, og Sedrusvid og trésmidi, og
steinhøggvara; þeir bygdu Davíd hús. 12.
Og Davíd kannadist vid ad Drottinn stadfesti
hann sem Konúng yfir Israel og efldi hans
Kóngsríki sakir síns fólks Israels.

13. Og Davíd tók sér enn fleiri hjákonur
og konur í Jerúsalem, eptir ad hann kom frá
Hebron; og Davíd fæddist enn fleiri synir og
dætur. 14. En þetta eru nøfn þeirra sem hon-
um fæddust í Jerúsalem g): Sammúa og Sóbab
og Natan og Salomo, 15. og Ibhar og Eli-
súa og Nefeg og Jafja, 16. og Elísama og
Elíada og Elifelet.

17. En er Filistear h) heyrdu, ad Davíd var
smurdur til Kóngs yfir Israel, løgdu þeir allir
af stad ad leita Davíds; og sem Davíd frétti
þad, fór hann út úr kastalanum. 18. Og Fili-
stear komu, og breiddu sig út í dalnum Refa-
im. 19. Þá fór Davíd til frétta vid Drott-
inn i) og mælti: skal eg fara móti Filisteum,
munt þú géfa þá í mína hønd? og Drottinn
sagdi vid Davíd: far þú! því eg mun géfa
Filisteana í þína hønd. 20. Þá kom Davíd
til Bal-Prasím k), og vann þá þar og mælti:
Drottinn hefur tvístrad mínum óvinum fyrir

V. 12. *a.* Kap. 3, 32. V. 1. *b.* 1. Kron. 12, 23. *c.* Kap. 19, 12. V. 3. *d.* 1 Sam. 16, 13. 2 Sam. 2, 4. V. 4. *e.* 1 Kóng. 2, 11. 1 Kron. 29, 27. V. 9. *f.* Dóm. 9, 6. 1 Kóng. 9, 15. V. 14. *g.* 1 Kron. 3, 5. 14, 4. V. 17. *h.* 1 Kron. 14, 8. V. 19. *i.* 1 Sam. 30, 8. V. 20. *k.* 1 Kron. 14, 11. Esa. 28, 21.

mér, líkt og þá vatni er skvett — því kalladi
hann þann stad Bal-Prasím (tvístrunar stad).
21. Og þeir skildu þar eptir skúrdgod sín a),
og Davíd og hans menn tóku þau.

22. Og Filistear komu aptur og breiddust
um dalinn Refaim. 23. Þá spurdi Davíd
aptur Drottinn, og hann svaradi: far þú ei!
kom þú ad baki þeim, gagnvart Mórberja skóg-
inum. 24. Og þá þú heyrir þyt fara yfir
mórberja eikurnar, skaltu ekki vera seinn, því
þá fer Drottinn fyrir þér, til ad vinna Fili-
steana. 25. Og Davíd gjørdi eins og Drott-
inn baud honum og rak Filisteana á flótta frá
Geba allt til Geser.

## 6. Kapítuli.

Sáttmálsørkin er flutt til Jerúsalem.

1. Og Davíd safnadi í annad sínn ein-
vala lidi af Ísrael, 30 þúsundum manns.
2. Og hann tók sig upp og lagdi af stad,
Davíd og allt fólkid, sem hjá honum var, úr
Júda borgum, til ad flytja Guds ørk þadan
(sem hún var) fyrir hvørri útthrópad er nafn-
id, Allsherjar Drottins nafn, hans sem sítur í
hásæti yfir Kerúbim. 3. Og þeir fluttu Guds
ørk á nýum vagni, og tóku hana úr húsi Abí-
nadabs, sem var í Gíbea b), en Usa og Ahio
synir Abínadabs, óku þeim nýa vagni. 4.
Þeir tóku hana úr Abínadabs húsi, sem var í
Gíbea, og Usa gékk med Guds ørk, en Ahio
gékk á undan ørkinni. 5. Og Davíd og allt
Ísraels hús lék fyrir Drottni med allra handa
hljódfærum úr Kyprusvid, med hørpum, hljód-
pípum, trumbum, bjøllum og básúnum (kym-
belum). 6. Og sem þeir komu til hlødu Nak-
ons, rétti Usa sína hønd út og greip til Guds
arkar, því aknentin høfdu sniíid af leid. 7.
Þá upptendradist reidi Drottins gégn Usa, og
Drottinn sló hann á þeim sama stad, sakir
þessarar syndar, og hann dó þar hjá Guds
ørk c). 8. Þá vard Davíd hryggur af því
ad Drottinn hafdi deydt Usa, og hann kalladi
þann sama stad Peres-Usa (Usu fall), (svo
heitir sá stadur) allt til þessa dags. 9. Og
Davíd vard hræddur vid Drottinn á þeim sama
degi, og mælti: hvørnig skal ørk Guds komast
til mín? 10. Og Davíd vildi ei flytja Drott-
ins ørk til sín í Davíds borg d), heldur lét
hana í hús Obed-Edoms Gatíta. 11. Og
svo var Drottins ørk í húsi Obed-Edoms,
Gatítans í 3 mánudi. Og Drottinn blessadi
Obed-Edom og allt hans hús.

12. Og Davíd komu þau tídindi, ad menn
søgdu: Drottinn hefir blessad Obed-Edoms
hús, og allt hvad hans er, sakir Guds arkar.
Þá lagdi Davíd af stad, og sókti Guds ørk í
hús Obed-Edoms, og flutti í Davíds borg
med føgnudi. 13. Og þad skédi, þá þeir sem
báru ørkina, voru komnir 6 skref, offradi hann
nauti og alikálfi. 14. Og Davíd dansadi af
øllum mætti fyrir Drottni, og hann var girdt-
ur línhøkli (línkyrtli). 15. Og Davíd og
allt Ísraels hús flutti ørk Drottins med gledi
ópi og básúnu hljómi. 16. En þad skédi,
þá ørk Drottins kom í Davíds borg, ad Mikal,
dóttir Sáls, leit út um glugga, og sá Davíd
Konúng støkkva og dansa fyrir Drottni, og hún
fyrirleit hann í sínu hjarta. 17. Og þeir
fluttu Drottins ørk inn, og settu hana í þad tjald
sem Davíd hafdi látid uppsetja fyrir hana.
Og Davíd offradi Drottni brennifórn og þakkar-
fórn. 18. Og sem Davíd hafdi lokid vid
brennifórnina og þakkarfórnina e), þá blessadi
hann fólkid í nafni Drottins Allsherjar. 19.
Og hann úthlutadi øllu fólkinu, øllum múga
Ísraelsmanna, køllum og konum, hvørjum fyr-

V. 21. *a.* 1 Sam. 31, 9. 1 Kron. 14, 12. V. 3. *b.* 1 Sam. 7, 1 V. 6. . 1 Kron. 13, 9. V. 7. *c.* Núm. 4, 15. 20. V. 10. *d.* Kap. 5, 7. 9. V. 18. *e.* 1 Kron. 16, 2. 3. *f.* 1 Kóng. 8, 55.

ir síg, braudkøku, kjøtstikki og mælir víns,
og allt fólkíd, hvør madur, fór heim til sín.
20. En þá Davíd kom heim til sín, ad
heilsa sínu húsi, gékk Mikal dóttir Sáls á móti
honum og mælti: vegsamlegur var Israels
Konúngur í dag, þegar hann afklæddist fyrir
ambáttum sinna þjóna, eins og sídur er þeirra
lausláta. 21. Þá sagdi Davíd vid Mikal:
fyrir Drottni, sem kaus mig í stad fødur þíns
og heldurenn allt hans hús, til ad setja mig
høfdíngja yfir Drottins fólk yfir Israel a),
fyrir Drottni, hefi eg dansad. 22. Og eg vil
verda enn minna metinn enn svo, og audvirdi-
legur vera í mínum augum; og med ambátt-
unum sem þú taladir um, med þeim vil eg
gjøra mig vegsamlegann. 23. En Mikal dótt-
ir Sáls, dó svo, ad hún átti ekki børn.

## 7. Kapituli.

Davíd vill byggja musteri; fær fyrirheit.

1. Og þad skédi, þá Davíd Konúngur var
setstur um kyrrt, og Drottinn hafdi géfid hon-
um frid allt um kríng fyrir øllum hans óvin-
um. 2. Þá sagdi Konúngurinn vid Natan spá-
mann: sjá! eg bý í húsi af Sedrus vidi b),
og ørk Guds er undir tjalddúkum! 3. Og
Natan svaradi Konúngi: gjør þú allt hvad þér
er í hug, því Drottinn er med þér. 4. Og þad
skédi þá sømu nótt ad ord Drottins kom til
Natans, og sagdi: 5. far þú, og seg mínum
þjón Davíd: svo segir Drottinn: vilt þú bygg-
ja mér hús til ad búa í? 6. Eg hefi í eingu
húsi c) búid í frá þeim degi, ad eg leiddi
Israelssyni úr Egyptalandi, allt til þessa dags,
og eg var á ferd í tjaldi, mér til bústadar. 7.
Allan þann tíma sem eg var á ferd med øllum
Israels sonum, hefi eg þá talad eitt ord vid
nokkra Israels ættkvísl, sem eg baud ad vakta
mitt fólk Israel, og sagt: því byggid þér mér
ekki hús af Sedrusvid? 8. Og seg nú til míns
þjóns Davíds: svo segir Drottinn Allsherjar:
eg hefi tekid þig úr haglendinu, þadan sem þú
rakst hjardir d), og eg gjørdi þig høfdíngja
yfir mitt fólk Israel e), 9. og var med þér,
hvørt sem þú fórst, og upprætti alla þína ó-
vini frá þér, og gjørdi þér mikid nafn, líkt
nafni hinna miklu á jørdinni, 10. og eg hefi
géfid bústad mínu fólki Israel, og gródursett
þad, ad þad búi á sínum stad og verdi ei fram-
ar ónádad, og ad vondskunnar synir þjái þad
ekki, eins og ádur, 11. í frá þeim tíma ad
eg baud dómurum ad vera yfir mínu fólki Isra-
el; og eg hefi útvegad þér ró fyrir øllum þín-
um óvinum; og Drottinn hefir kunngjørt þér
ad hann muni byggja þér hús. 12. Þegar
þínir dagar eru (þrotnir), og þú liggur hjá
þínum fedrum, svo vil eg hefja þinn nidja
eptir þig sem kominn er af þínum lendum,
og eg skal stadfesta hans Konúngsríki. 13. Sá
hinn sami skal byggja hús mínu nafni, og eg
mun stadfesta hásæti hans Kóngsríkis; 14.
eg vil vera honum fadir, og hann skal vera
mér sonur, svo þó honum yfirsjáist, vil eg ad
eins hirta hann med manna vendi og med
mannsins barna høggum, 15. og mín nád skal
ei frá honum víkja, eins og eg dróg hana í
hlé vid Sál f), sem eg tók úr vegi frá þér;
16. þitt hús og þitt ríki skal stadfast vera til
eilífdar. Þitt hásæti óbifanlegt ad eilífu.
17. Samkvæmt øllum þessum ordum og
opinberunum taladi Natan vid Davíd. 18.
Þá gékk Davíd Konúngur inn, og setti sig fyr-
ir auglit Drottins og mælti: hvør em eg g),
minn Drottinn, Drottinn! og hvad mitt hús,

V. 21 *a.* 1 Sam. 25, 30. 2 Sam. 7, 8. V. 2. *b.* Kap. 5, 11. V. 6. *c.* 1 Kóng. 8, 16. Esa. 66, 1. V. 8. *d.* 1 Sam. 16, 11—13. Salm. 78, 70. *e.* 2 Sam. 6, 21. Sálm. 78, 71. V. 12. 1 Kron. 17, 11. V. 13. 1 Kóng. 5, 5. 6, 12. 1 Kron. 17, 12, Sálm. 89, 4. V. 15. *f.* 1 Sam. 15, 26: V. 18. *g.* Gen. 32, 10.

ad þú hefur minst mín hingad til? 19. Og
þér nægdi þad ei, minn Drottinn, Drottinn, þú
gafst og húsi þíns þénara fyrirheit, sem eiga sér
lángan aldur, er slíkt manna háttur, minn Drott-
inn, Drottinn. 20. Og hvad skal Davíd fram-
ar vid þig segja? þú þekkir þinn þjón, minn
Drottinn, Drottinn. 21. Sakir þinna orda og
eptir þínum vilja hefir þú gjört allt þetta mikla,
og kunngjørt þad þínum þjón. 22. Þessvegna
ert þú mikill Gud Drottinn, því einginn er sem
þú, og einginn Gud nema þú, øldúngis sam-
hljóda því sem vér høfum heyrt med vorum
eyrum. 23. Og hvada fólk á jørdunni er sem
þitt fólk, sem Israel a), fyrir hvørs sakir Gud
tók sig til, ad útleysa þad handa sér, og útvega
sér nafn, og framkvæma þad mikla og óttalega
fyrir þitt land, í augsýn þess fólks, sem þú
hefir leyst handa þér frá Egyptskum, frá þjód-
unum og þeirra afgudum. 24. Og svo hefir
þú tilreidt handa þér þitt fólk Israel, ad þad
sé þitt fólk ad eilífu, og þú Drottinn ert þess
Gud. 25. Og nú, Gud Drottinn! þad ord sem
þú hefir talad vidvíkjandi þínum þjón og hans
húsi, þad hid sama stadfest þú ad eilífu, og gjør
sem þú hefir mælt. 26. Og mikid sé þitt
nafn ad eilífu, ad menn segi: Drottinn Alls-
herjar, er Gud yfir Israel, og hús þíns þjóns
Davíds sé stadfast fyrir þér; 27. því þú, Alls-
herjar Drottinn, Gud Israels, þú hefir opin-
berad þínum þjón b) og sagt: eg vil byggja
þér hús, því hefir þjón þinn feingid hjarta
til ad frambera þér þessa bæn. 28. Og nú
minn Drottinn, Drottinn, þú ert Gud, og þín
ord munu verda sannleiki c); og þú hefir fyrir-
heitid þessi gjædi þjóni þínum. 29. Og lát
þér nú þókknast ad blessa hús þíns þénara, ad þad
eilíflega sé fyrir þér, því þú, minn Drottinn!
Drottinn! hefir því heitid, og fyrir þína bless-
an mun hús þíns þénara ad eilífu blessad
verda.

## 8. Kapítuli.

Sigurvinníngar Davíds. Hans høfdíngjar.

1. Eptir þad vann Davíd sigur á Filiste-
um, og audmýkti þá og tók tauma høfud-
stadarins úr Filisteanna hønd. 2. Og líka
sigradi hann Móabítana og mældi þá med
vad, hann lét þá leggjast nidur á jørdina, og
mældi tvo vadi til ad deyda; og einn vad til
ad láta lifa. Svo urdu Móabítar Davíds
þrælar, sem færdu honum gáfur. 3. Og Da-
víd yfirvann Hadadeser Rehobs son, Konúng í
Soba, þá hann fór leidángur til ad ná aptur
ríki ad ánni Frat. 4. Og Davíd vann af
honum 17 hundrud reidmenn og 20 þúsund
fótgaungulids, og helti alla vagnhestana, og
hélt eptir hundradi af þeim. 5. Og Sýr-
lendskir frá Damaskus komu til lids vid Hadad-
eser, Konúng í Sóba; og Davíd lagdi ad
velli þá Sýrlendsku, 22 þúsundir manns. 6.
Og Davíd lét eptir vera setulid í Damaskus
á Sýrlandi, og Sýrlendskir gjørdust Davíds
þegnar sem færdu honum gáfur. Svo veitti
Drottinn Davíd sigur hvørt sem hann fór. 7.
Og Davíd tók þá gullbúnu skildi, sem Hadad-
esers þjónar høfdu borid og flutti þá til Jerú-
salem, 8. og úr Beta og Berotai, stødum
Hadadesers, tók Davíd Konúngur afar mikid
eir. 9. Og Tói Konúngur í Hemat frétti
ad Davíd hefdi lagt ad velli allan Hadadesers
her. 10. Þá sendi hann son sinn Jóram til
Davíds Konúngs til ad heilsa honum, og óska
til lukku, ad hann í strídinu vid Hadadeser hefdi
feingid sigur, því Tói var í strídi vid Hadad-

V. 23. *a.* Deut. 4, 7. 1 Kron. 17, 21. V. 27. *b.* 1 Kron. 17, 25. V. 28. *c.* 1 Kóng. 8, 26. Sálm. 33, 4.
V. 1. Adrir leggja út: tók Metek=Amma, og vilja þad sé sama borg og Gat. Sjá 1 Krb. 18, 1. V. 2. Lét hvørn þridja mann halda lifi. V. 3. 1 Kron. 18, 3. V. 4. Jós. 11, 9. 1 Kron. 18, 4. V. 9. 1 Kron. 18, 9.

eser, og hann hafdi med sér, gérsemar af
gulli, silfri og eiri. 11. Þær helgadi Davíd
Konúngur Drottni ásamt því gulli og silfri er
hann hafdi helgad frá øllum þeim þjódum sem
hann hafdi yfirunnid, 12. frá Sýrlendskum
og frá Móabítum, og frá Ammons sonum og
frá Filisteum og frá Amalekítum, og af herfángi
Hadadesers sonar Rehobs Konúngs í Sóba.

13. Og Davíd gjørdi sér minnismerki þá
hann kom til baka, eptir ad hann hafdi lagt
ad velli Edomíta, 18 þúsundir, í Saltdalnum.
14. Og hann lagdi setulid inní Edoms land,
um allt landid setti hann setulid og allt Edoms
land lagdist undir Davíd. Og svona útvegadi
Drottinn Davíd sigur allstadar, hvørt sem hann
fór a). 15. Og Davíd ríkti yfir øllum Ís-
rael, og lét allt sitt fólk njóta laga og rétt-
inda b). 16. En Jóab sonur Seruja var fyr-
ir hernum, og Jósafat sonur Ahilud var sagna-
meistari. 17. Og Sadok sonur Ahitubs, og
Ahimelek sonur Abiatars voru prestar, og Sera-
ja skrifari, 18. og Benaja sonur Jojada var
yfir lífvaktinni, og Davíds synir voru klerkar.

## 9. Kapítuli.

Davíds velgjørd vid Mefiboset.

1. Og Davíd mælti: er nú nokkur madur
eptir ordinn af Sáls ætt, ad eg géti audsýnt
honum nád sakir Jónatans? 2. En af Sáls
húsi var til þræll nokkur sem hét Siba c),
hann kølludu þeir fyrir Davíd, og Kóngur
mælti vid hann: ert þú Siba? og hann svar-
adi: já, þinn þræll er! 3. Og Konúngur sagdi:
er einginn madur nú eptir ordinn af húsi Sáls,
ad eg sýni á honum Guds miskunsemi? Og
Siba ansadi Konúnginum: enn er á lífi sonur
Jónatans og er fótlami d). 4. Og Konúngur
sagdi til hans: hvar er hann? Siba sagdi vid
Kónginn: hann er í húsi Makírs sonar Ammí-
els í Lodebar e). 5. Þá sendi Davíd Kon-
úngur þángad og lét sækja hann í hús Makírs
sonar Ammíels í Lodebar. 6. Og svo kom
Mefiboset sonur Jónatans sonar Sáls, til Da-
víds, og féll fram á sitt andlit og laut hon-
um og Davíd mælti: Mefiboset! og hann svar-
adi: sjá! hér em eg, þinn þræll! 7. Og Davíd
sagdi til hans: vert þú óhræddur, á þér vil eg
gjøra miskunarverk, søkum Jónatans fødur
þíns, og vil géfa þér aptur alla akra fødur
þíns Sáls, og þú skalt jafnan eta vid mitt
bord f), 8. og hann laut og mælti: hvad er
þinn þræll, ad þú rennir auga á daudan
hund g), sem eg er. 9. Þá kalladi Konúng-
ur Siba fyrir sig, þjón Sáls, og mælti til
hans: allt þad sem Sál tilheyrdi og øllu hans
húsi, þad géf eg syni þíns herra. 10. Yrk þú
nú landid fyrir hann, þú og þínir synir og þín-
ir þrælar, og hyrd af þeim, ad þinn herra
hafi braud og eti. Og Mefiboset sonur þíns
herra, skal ávalt eta vid mitt bord; en Siba
átti 15 syni og 20 þræla h). 11. Og Siba
sagdi vid Konúnginn: eins og minn herra Kon-
úngurinn býdur sínum þræli, svo mun þinn
þræll gjøra. „Og Mefiboset skal eta vid mitt
bord sem einn af Kóngsins sonum i)". 12.
En Mefiboset átti úngann son sem hét Mika,
og allir sem bjuggu í Siba húsi, voru Mefi-
bosets þrælar. 13. Og Mefiboset bjó í Jerú-
salem, því hann sat ávallt til bords med Kon-
úngi, en hann (Mefiboset) var halltur á bád-
um fótum k).

## 10. Kapítuli.

Sigur yfir Ammonítum og Sýrlendskum.

1. Eptir þad bar svo til ad Konúngur

V. 14. *a.* v. 6. 1 Kóng. 11, 15. V. 15. *b.* 1 Kron. 18, 14. V. 16. Kap. 20, 23. 24. V. 2. *c.* Kap. 16. 1. V. 3. *d.* Kap. 4, 4. V. 4. *e.* Kap. 17, 27. V. 7. *f.* 2 Kóng. 25, 29. V. 8. *g.* 1 Sam. 24, 15. 2 Kóng. 8, 13. V. 10. *h.* Kap. 19, 17. V. 11. *i.* Kap. 19, 28. V. 13. *k.* Kap. 4, 4. V. 1. 1 Kron. 19, 1.

Ammons barna dó, og Hanon hans son vard
Kóngur í hans stad. 2. Þá mælti Davíd:
eg vil sýna vinskap Hanon syni Nahas, eins
og hans fadir sýndi mér vinskap. Og Davíd
sendi sína þjóna til ad hugga hann þá hann
syrgdi fødur sinn. Svo komu Davíds þjónar
í land Ammons barna. 3. Þá søgdu høfdíng-
jar Ammons barna vid Hanon sinn herra: þyki
þér Davíd heidra fødur þinn, þar hann sendir
til þín huggara? mun Davíd ei ætla sér ad
ransaka og njósna um borgina og eydileggja
hana svo, og þessvegna hafa sendt sína þjóna
til þín? 4. Þá tók Hanon Davíds þjóna og
skar af þeim hálft skéggid, sømuleidis hálf
þeirra klædi allt upp til beltisstadar, og lét þá
svo fara. 5. Þetta var Davíd sagt, þá sendi
hann á móti þeim, því mennirnir voru mjøg
svívirdtir, og Konúngur lét segja þeim: verid í
Jerikó þángad til ydar skégg sprettur, og kom-
id svo heim aptur.

6. En sem Ammons børn sáu ad Davíd
var ordid gramt í gédi a) sendu þeir af stad,
og leigdu sér Sýrlendska í Bet-Rehob og Sýr-
lendska í Soba 20 þúsund manns af fótgaungu
lidi og þúsund manns af Konúnginum í Ma-
aka, og 12 þúsund manns í Tob b). 7. En
sem Davíd frétti þad, sendi hann Jóab af stad
og allan strídsmanna herinn. 8. Og Amm-
ons børn løgdu af stad, og skipudu sér nidur til
bardaga fyrir utan borgarhlidid. Og þeir Sýr-
lendsku frá Soba og Rehob, og mennirnir frá
Tob og Maaka stódu einir á vígvellinum. 9.
En er Jóab sá ad honum var bardagi búinn,
bædi í bak og fyrir, tók hann sér einvalalid af
øllum Israel, og fór á móti Sýrlendskum;
10. og hitt lidid fékk hann Abísai bródur sín-
um, og hann fór móti Ammons børnum. 11.
Og Jóab mælti: verdi Sýrlendskir mér yfir-
sterkari svo kom þú mér til lids, og ef Amm-
ons børn verda þér yfirsterkari, þá kém eg þér
til lids. 12. Vertu fastur fyrir, og látum oss
verja ørugglega vort fólk og stadi vors Guds;
en Drottinn gjøri hvad honum gott þykir. 13.
Og Jóab lagdi til orustu og þad fólk sem med
honum var móti Sýrlendskum, og þeir hrukku
fyrir honum. 14. En sem Ammons børn
sáu ad Sýrlendskir flýdu, løgdu þeir líka á
flótta fyrir Abísai, og fóru inní borgina. Og
Jóab snéri eptir þad heim frá Ammonítum og
kom til Jerúsalem.

15. En sem Sýrlendskir sáu ad þeir høfdu
feingid ósigur fyrir Israelsmønnum, saman-
søfnudust þeir allstadar frá. 16. Og Hadad-
eser sendi bod, og lét Sýrlendska sem voru
hinumegin vid ána fara leidángur, og þeir komu
til Helam; og Sobak, Hadadesers hershøfdíngi
var fyrir þeim c). 17. Þá Davíd fékk þad
ad vita, samansafnadi hann øllum Israel og
fór yfir ána Jórdan og kom til Helam. Og
Sýrlendskir skipudu sér nidur í fylkíngu gégnt
Davíd og børdust vid hann, 18. en Sýr-
lendskir flýdu fyrir Israelítum, og Davíd feldi
af Sýrlendskra hervøgnum 7 hundrud manns,
og 40 þúsund reidmenn, hann lagdi og ad
velli hershøfdíngann, svo ad hann dó (þar).
19. En þá þeir Kóngar sem voru lidskildir
vid Hadadeser, sáu ad þeir voru sigradir af
Israelítum, gjørdu þeir frid vid Israel og urdu
þeim undirgéfnir. Og Sýrlendskir þordu ekki,
upp frá því, ad koma Ammonítum til lids.

## 11. Kapítuli.

Davíd leggst med Berseba.

1. Og þad skédi, ad ári lidnu, um þad
leiti sem Kóngar eru vanir ad fara í leidáng-
ur, ad Davíd sendi Jóab og sína þénara med

V. 6. *a.* Kap. 16, 21. 1 Kron. 19, 6. 1 Sam. 13, 4. 27, 12. V. 8. *b.* Dóm. 11, 3. V. 16. *c.* 1 Kron. 19, 16. V. 18. *d.* 1 Kron. 19, 18.

honum og allan Israel, og þeir eydilögdu (land) Ammons barna, og settust um Rabba; en Davíd sat heima í Jerúsalem. 2. Svo bar þá til ad Davíd, á álidnum degi, stód upp af sæng sinni og gékk um gólf á þaki Kóngshallarinnar, og sá af þakinu konu sem laugadi sig, og sú kona var mikid fríd sýnum. 3. Þá sendi Davíd og spurdist fyrir um konuna; og menn sögdu honum: þad er Berseba, dóttir Elams, kona Urías Hetíta a). 4. Og Davíd sendi menn og lét sækja hana, og hún kom til hans og hann lagdist med henni; og hún hreinsadi af sér sín saurindi b), og fór aptur heim til sín. 5. Og konan vard ólétt, og hún sendi, og lét Davíd vita þad og mælti: eg em þúngud. 6. Þá gjördi Davíd þessi bod Jóab: „send þú mér Hetítann Uría" og Jóab sendi Uría til Davíds. 7. En sem Uría kom, spurdi Davíd hvörnig Jóab og fólkinu lidi, og hvörnig strídid geingi. 8. Og Davíd sagdi vid Uría: gakk þú nú heim til þín og þvo þína fætur. Svo gékk Uría úr Kóngsins húsi, og eptir honum var borin gáfa frá Kónginum. 9. En Uría lagdist nidur fyrir dyrum hallarinnar, hjá öllum þénurum síns herra, og gékk ekki heim til sín. 10. Menn sögdu þad Davíd og mæltu: Uría er ekki farinn heim í sitt hús, þá sagdi Davíd til Uríu: ert þú ekki ekki kominn úr ferd? því fórstu ekki heim í þitt hús? 11. Og Uría mælti til Davíds: örkin og Israel og Júda eru í tjöldum, og minn herra Jóab og þjónar míns herra liggja á mörkinni, og skyldi eg gánga heim í mitt hús, eta og drekka og leggjast hjá konu minni? svo sannarlega sem þú lifir og þín sál lifir, eg gjöri þad ekki! 12. Og Davíd sagdi vid Uríu: vertu hér þá í dag, en á morgun géf eg þér fararleyfi. Svo var Uría í Jerúsalem þennan sama dag og daginn eptir. 13. Og Davíd hafdi hann í bodi sínu, og hann át og drakk med honum og hann gjördi hann drukkinn; en um kvöldid gékk hann burt til ad leggja sig í sitt rúm hjá þénurum síns herra, en hann gékk ekki heim í sitt hús. 14. En um morgunin skrifadi Davíd bréf til Jóabs og sendi þad med Uría. 15. Og hann skrifadi svo í bréfid: setjid Uría þar í bardagann sem hann er hardastur, og hopid frá honum til baka ad hann verdi ofurlida borinn og falli. 16. Sem Jóab sat nú um stadinn, skipadi hann Uría til orustu þar sem hann vissi ad hraustir menn voru fyrir. 17. Og borgarmenn fóru út úr stadnum og bördust vid Jóab, og nokkrir féllu af lidinu, af þjónum Davíds, og Hetítinn Uría féll líka. 18. Þá sendi Jóab og lét Davíd vita hvar þá væri komid. 19. Og hann lagdi svo fyrir sendimanninn og mælti: þegar þú hefir sagt frá bardaganum hid ljósasta, 20. og þú sjer ad Kóngurinn verdur reidur, og hann segir vid þig: „því fórud þid svo nærri borgarveggnum í orustu? vissud þér ekki ad þeir mundu skjóta á ydur nidur af borgarveggnum? 21. Hvör feldi Abímelek Jerúbbesetsson? kastadi ekki kona nokkur á hann nidur af borgarveggnum kvarnarsteins broti, svo hann dó í Tebes c)? því fórud þér inn undir borgarvegginn?" þá segdu: þinn þénari Hetítinn Uría féll líka.

22. Svo fór sendimadurinn og kom og flutti Davíd allt sem Jóab hafdi lagt fyrir hann. 23. Og sendimadurinn sagdi vid Davíd: mennirnir báru oss ofurlida og fóru út á móti oss á völlinn; þá þreyngdum vér þeim allt ad borgarhlidinu. 24. En nú skutu þeir á oss nidur af borgarveggnum, og nokkrir af Kóngsins þénurum féllu, og líka er þinn þénari Hetítinn Uría fallinn. 25. Þá mælti Davíd vid sendimanninn: seg þú þá Jóab: láttu þetta ekki á þig fá (þad geingur svona til í stríd-

V. 3. *a.* Kap. 23, 39. V. 4. *b.* Núm. 15, 18. 19. V. 21. *c.* Dóm. 9, 53.

inu), halt þú áfram umsátrinu og eydilegg því
borgina. Þannig skalt þú hughreysta hann.
26. En sem kona Uría frétti, ad madur henn-
ar Uría var fallinn, harmadi hún mann sinn.
27. Og þá sorgardagarnir voru lidnir, sendi
Davíd og tók hana í sitt hús, og hún vard
hans kona, og ól honum son; en Drottni mis-
líkadi þad sem Davíd hafdi gjørt.

## 12. Kapítuli.

Rabba er inntekinn.

1. Og Drottinn sendi Natan til Davíds,
og hann kom til hans og mælti: tveir menn
voru í sømu borg, annar var ríkur en hinn
fátækur. 2. Sá ríki átti fjølda bædi sauda og
nauta, 3. en sá fátæki átti alls ekki nema lamb
sem hann hafdi keypt, og alid, og þad ox upp
hjá honum, med hans sonum; þad át af hans
mat, og drakk af hans bikar; og vid hans
brjóst svaf þad, og var eins og hans dóttir.
4. Þá kom ferdamadur til hins ríka manns,
og hann tímdi ekki ad taka neinn af sínum saud-
um eda af sínum nautum, til matreidslu fyrir
ferdamanninn, sem var kominn til hans, og
tók lamb fátæka mannsins, og matbjó þad fyr-
ir manninn sem kominn var til hans.

5. Þá upptendradist reidi Davíds ákaflega,
og hann sagdi vid Natan: svo sannarlega sem
Drottinn lifir! sá madur sem slíkt hefir adhafst,
er dauda sekur! 6. lambid skal hann fjórum
sinnum a) betala fyrst hann gjørdi þetta og
hafdi einga medaumkun. 7. En Natan sagdi
vid Davíd: þú ert madurinn! svo segir Drott-
inn, Israels Gud: eg hefi smurt þig til Kon-
úngs yfir Israel, og eg hefi frelsad þig af hendi
Sáls. 8. Og eg gaf þér hús þíns herra og
konur þíns herra ad leggja vid þitt brjóst, og
Israels og Júda hús, og hefdi þad verid of-
lítid mundi eg hafa bætt vid þig því og því.
9. Því hefir þú forsmád ord Drottins, med
því ad adhafast þad sem honum mislíkar?
Uría Hetítann hefir þú fellt med sverdi, og tekid
hans konu þér fyrir konu, og hann hefir þú drepid
med sverdi Ammons sona. 10. Þessvegna
skal sverdid ekki víkja frá þínu húsi ad eilífu,
vegna þess þú forsmádir mig, og tókst þér fyr-
ir konu, ektakvinnu Uríu Hetítans b). 11. Svo
segir Drottinn: sjá! eg læt ólán koma yfir þig
af þínu eigin húsi, og tek konur þínar fyrir
þínum augum og géf þær ødrum manni, svo
hann leggist med þeim fyrir sólarinnar augum.
12. Því þú hefir gjørt slíkt med launúng, en
eg mun gjøra slíkt í augsýn alls Israels og í
augsýn sólarinnar.

13. Þá sagdi Davíd vid Natan: eg hefi
syndgad mót Drottni! og Natan svaradi Da-
víd: svo hefir þá Drottinn burttekid þína synd,
þú munt ekki deya. 14. En sakir þess þú hef-
ir géfid Drottins óvinum orsøk til lastyrda, svo
skal sá sonur, sem þér er fæddur, vissulega deya.
15. Og svo gékk Natan heim í sitt hús. Þá
sló Drottinn barnid sem Uríu kona hafdi fædt
Davíd, og þad vard daudveikt. 16. Og Da-
víd leitadi Guds, vegna dreingsins, og fastadi,
og gékk inn og lá á gólfinu nóttina þá. 17.
Og þeir elstu af hans húsi tóku sig til, ad fá
hann til ad rísa upp af gólfinu; en hann vildi
ei, og át ei med þeim. 18. En á sjøunda degi
dó barnid; og Davíds þénarar þordu ekki ad
láta hann vita ad barnid væri dáid; því þeir
søgdu: sjá! medan barnid lifdi, tøludum vér
vid hann og hann ansadi oss ekki; og hvørnig
getum vid þá vid hann sagt: barnid er dáid?
hann kann ad gjøra einhvørja ólukku af sér.
19. Og Davíd tók eptir ad hans þénarar voru
eitthvad ad pískra og rédi þar af ad barnid væri
dáid; og Davíd sagdi til sinna þénara: er
barnid dáid? og þeir svørudu: þad er dáid.

V. 6. a. Ex. 22, 1. fl. V. 10. b. Kap. 11, 27.

20. Þá stód Davíd upp af gólfinu, og þvodi sér, og smurdi sig, og skifti um klædi, og gékk í Drottins hús, og tilbad, og kom aptur í sitt hús, og skipadi ad færa sér mat, og hann át. 21. Þá sögdu hans þénarar vid hann: hvad er þad sem þú nú hefir gjört? medan barnid lifdi, fastadir þú og grétst, og þegar barnid var dáid, stódst þú upp og matadist? 22. Og hann svaradi: medan barnid var á lífi fastadi eg og grét, því eg hugsadi: hvør veit nema Drottinn miskuni mér, svo barnid lifi. 23. En fyrst þad er nú dáid, hvarfyrir skyldi eg þá fasta? mun eg géta feingid þad aptur? eg fer til þess, en þad kémur ei aptur til mín.

24. Og Davíd huggadi konu sína Batseba, og gékk inn til hennar og svaf hjá henni og hún fæddi son og kalladi hann Salómon a) og Drottinn elskadi hann. 25. Og hann gjördi bod med spámanninum Natan og kalladi hans nafn Jedidia, Drottins vegna. (Jedidia þýdir: Drottins ást).

26. Og Jóab herjadi á Rabba (borg) Ammons barna b), og vann Kóngssetrid. 27. Og Jóab sendi bod til Davíds, og sagdi: eg hefi herjad á Rabba, og eg hefi unnid vatns stadinn; 28. safnadu nú hinu ödru fólkinu, og setstu um stadinn og tak þú hann, svo ad eg taki hann ekki, og mitt nafn verdi ei nefnt til þess. 29. Þá safnadi Davíd öllu fólkinu, og fór til Rabba, og herjadi á stadinn og vann hann. 30. Og hann tók kórónu Konúngsins af hans höfdi, hún var úr gulli og gimsteinum og vóg 100 pund, og setti hana á sitt höfud; og herfángid sem hann flutti úr borginni var næsta mikid. 31. Hann flutti líka fólkid þadan, og lagdi þad undir sagir og járnvagna og járnfleiga og brendi þad upp í tíglofnum. Svo gjördi hann vid alla stadi Ammons barna. Eptir þad fór Davíd heim til Jerúsalem og allt fólkid.

## 13. Kapítuli.

Vidskipti Ammons og Absalons sona Davíds.

1. Nú segir frá því, ad Absalon sonur Davíds átti frída systur, sem hét Tamar, og Amnon Sonur Davíds elskadi hana. 2. Og Amnon píndist og vard sjúkur vegna Tamar systur sinnar, því hún var mey; og Amnon þókti ómögulegt ad gjöra henni nokkud. 3. En Amnon átti vin sem hét Jónadab, sonur Simea c), bródur Davíds; og Jónadab var mikid kjænn madur. 4. Og hann sagdi vid hann: því horast þú Konúngs son, þannig dag frá degi? viltu ekki segja mér þad? og Amnon sagdi til hans: eg elska Tamar, systur Absalons bródur míns. 5. Og Jónadab sagdi til hans: legg þú þig uppí rúm þitt og lát sem þú sért veikur, og komi fadir þinn, ad vitja þín, svo segdu vid hann: láttu Tamar systir mína koma, ad hún gefi mér eitthvad ad eta, og matreidi fyrir mínum augum, svo eg horfi á, og eg eti úr hennar hendi. 6. Svo lagdist Amnon fyrir, og létst vera sjúkur, og Konúngur kom ad vitja hans. Og Amnon sagdi vid Kónginn: leisdu ad Tamar systir mín komi og steiki mér tvær kökur svo eg sjái, og eg eti úr hennar hendi. 7. Þá gjördi Davíd ord Tamar í húsid og mælti: far þú í hús Amnons bródur þíns og matbú þú honum fædu. 8. Og Tamar gékk í hús Amnons bródur síns; en hann lá í rúminu. Og hún tók deyg og hnodadi, og gjördi kökur fyrir hans augum, og steikti kökurnar. 9. Og tók pönnuna og úr henni fyrir hans augum; en hann vildi ekki eta. Og Amnon mælti: fari nú hvør madur út frá mér, og hvør madur fór út frá honum. 10. Þá sagdi Amnon vid Tamar: far þú med matinn inní herbergid svo eg eti úr þinni hendi. Og Tamar tók kökurnar er hún hafdi gjört, og færdi þær Amnon, bródur sínum, inní her-

V. 24. a. 1 Kron. 22, 9. V. 26. b. Devt. 3, 11. Jer. 49, 2. V. 3. c. 1 Kron. 2, 13.

bergid. 11. Og sem hún rétti honum þær ad eta, greip hann til hennar og mælti: kom þú, systir mín! og leggst þú med mér! 12. Og hún sagdi til hans: nei, bródir minn! svívirdtu mig ekki, slíkt vidgeingst ekki í Ísrael. Gjørdu ei þetta skammarverk! 13. Og hvad ætti eg af mér ad gjøra med mína svívirdíngu, og þú mundir verda einn sá svívirdilegasti í Ísrael. Taladu þó vid Konúnginn, því hann mun ekki synja þér um mig. 14. En hann vildi ekki gégna henni, og naudgadi henni og kreinkti hana og lá med henni.

15. Og Amnon fékk mikla óbeit á henni og hans hatur til hennar var meira enn sú ást, sem hann hafdi haft á henni. Og Amnon sagdi vid hana: stattu upp og far burt! 16. Og hún mælti vid hann: adhafst þú ei þetta enn stærra vondsku verk enn hid annad sem þú hefir gjørt mér, ad útskúfa mér! en hann vildi ekki gégna henni. 17. Og hann kalladi sínn svein er þjónadi honum, og mælti: kom þú þessari burt frá mér út á gøtuna og læstu dyrunum eptir henni. 18. En hún var í løgdum kyrtli, því svo voru Kóngs dæturnar klæddar, medan þær voru meyar. 19. Og hans þénari fór med hana út á strætid og læsti dyrum eptir henni, þá fleigdi Tamar øsku yfir høfud sér, og reif þann lagda kyrtil sem hún var í, lagdi høndina á høfudid, og gékk svo æpandi.

20. Og Absalon bródir hennar sagdi til hennar: hefir bródir þinn Amnon verid hjá þér? heyrdu! systir mín, þeigi þú! hann er bródir þinn; láttu þetta ekki á þig fá. Og Tamar var í húsi Absalons bródur síns ad fárra vitund, (í einhýsi). 21. Og Kóngur frétti allt þetta og vard mjøg reidur. 22. Og Absalon taladi ekki vid Amnon, hvørki gott né íllt; því Absalon hatadi Amnon, fyrir þad ad hann hafdi kreinkt systur hans Tamar.

23. Tveim árum sídar klipti Absalon saudi sína í Baal-hasor hjá Efraim, og Absalon gjørdi heimbod øllum Kóngs sonunum. 24. Og Absalon gékk fyrir Konúnginn og mælti: sjá! þinn þjón klippir hjørd sína, komi því Konúngurinn og hans þjónar med þínum þjón. 25. Og Konúngurinn mælti vid Absalon: nei! minn son, lát oss ei alla fara, ad vér gjørum þér ei slíkan átrodníng, og þó hann legdi ad honum, vildi hann ekki fara, en óskadi til lukku (blessadi hann). 26. Og Absalon mælti: þó þú farir ekki, þá leifdu samt ad Amnon bródir minn fari med oss. Og Kóngur mælti vid hann: Hví skal hann fara med þér? 27. En Absalon lagdi ad honum. Og þá lét hann Amnon fara med honum og alla Kóngsíns syni.

28. Og Absalon baud sínum sveinum og mælti: sjáid nú til! þegar Amnon er farinn ad hýrna vid vínid, og eg segi til ydar: drepid Amnon! þá sláid hann í hel, og verid óhræddir! skipa eg ydur ekki þetta? verid hugadir og øruggir menn! 29. Og Absalons sveinar gjørdu, eins og Absalon hafdi bodid, vid Amnon. Þá tóku allir Kóngs synirnir síg upp, og hvør þeirra sté á bak sínum múl, og þeir flýdu.

30. En medan þeir voru á leidinni, flaug sá kvittur fyrir Davíd, ad Absalon hefdi í hel slegid alla Kóngsíns syni, og einginn þeirra hefdi undan komist. 31. Þá stód Kóngur upp og reif sín klædi og lagdi síg nidur á jørdina, og allir hans þénarar stódu þar í sundur rifnum klædum. 32. Þá tók Jónadab, sonur Simea, bródur Davíds, til orda, og mælti: Herra minn! hugsa þú ekki: alla þá úngu menn, syni Kóngsíns hafa þeir drepid, því Amnon einn er daudur. Yfir því hefir Absalon búid í frá þeim degi ad hann kreinkti systur hans Tamar. 33. Minn herra, Konúngurinn láti sér ekki þetta til hjarta gánga, og hugsi ekki:

ad allir Kóngsins synir séu daudir; nei, Amnon einn er daudur.

34. Og Absalon flúdi — en þeim sveini sem héllt vørd vard litid upp, og sá, og sjá þú! mikill skari kom veginn hvør eptir annan med fjallshlídinni. 35. Þá mælti Jónadab vid Konúnginn: sjá! Kóngsins synir koma; eins og þinn þjón hefir sagt, svo hefir allt tilgeingid. 36. Og sem hann hafdi endad sitt tal, sjá! þá komu synir Kóngsins, og þeir grétu hástøfum, og Kóngur og hans þjónar grétu líka ákaflega. 37. En Absalon flúdi, og fór til Talmai, sonar Ammíhuds, Kóngs í Gesúr a); og Davíd syrgdi son sinn alla daga. 38. En Absalon flúdi og fór til Gesúr og var þar í 3 ár. 39. Og Davíd Konúng lángadi til ad fara til Absalons, því af honum rættist harmurinn eptir Amnon þegar frá leid.

## 14. Kapítuli.

Absalon kémst aptur í sátt vid fødur sinn.

1. Og Jóab Serujason tók eptir því ad Kóngurinn unni Absalon. 2. Þá sendi Jóab til Tekoa og lét sækja þadan skynuga konu, og sagdi vid hana: láttu sem þú sért í sorg, og far þú í sorgar klædi, og smyr þig ekki med vidsmjøri, og vertu sem kona, er í lángan tíma hefir syrgt framlidinn mann. 3. Og gakk fyrir Konúng og fall á þitt andlit til jardar, og ávarpa hann þessum ordum. Og Jóab lagdi henni ord í munn.

4. Og konan frá Tekoa ávarpadi Konúnginn, og féll á sitt andlit til jardar og beigdi sig, og mælti: hjálpa mér Konúngur b)! 5. Og Konúngurinn sagdi til hennar: hvad geingur ad þér? og hún mælti: sannarlega! ekkja er eg og madur minn er dáinn. 6. Og þín ambátt átti tvo syni, þeir urdu missáttir á akri, og einginn var þar sem gat skilid þá, og sá eini sló hinn annan og drap hann. 7. Og sjá! øll ættin er risin upp móti þinni ambátt, og menn segja: framsel þú þann sem drap bródur sinn, ad vér drepum hann fyrir sál bródur hans, sem hann myrdti, og vér viljum og afmá erfíngjann; og svona vilja þeir sløkka þann neista sem mér er eptir ordinn, svo madurinn minn hafi hvørki nafn né nidja á jørdinni. 8. Og Kóngur mælti vid konuna: far þú heim til þín, eg skal géfa skipan þér vidvíkjandi, 9. en konan frá Tekoa sagdi til Konúngsins: á mér, minn herra Konúngur! hvíli sekt og á míns følurs húsi, en Konúngurinn og hans hásæti sé saklaust. 10. Og Konúngur sagdi: hvørn sem móti þér talar, skaltu færa til mín, og hann skal ei framar áreita þig. 11. Þá mælti hún: mundu þó Kóngur, til Drottins þíns Guds, ad blódhegnarinn gjøri ei meira tjón, og ad þeir tortími ekki syni mínum fyrir mér. Og hann mælti: svo sannarlega sem Drottinn lifir! af høfudhárum sonar þíns skal ekki eitt falla til jardar c).

12. Og konan sagdi: leyf þinni ambátt ad tala eitt ord til míns herra Konúngsins! og hann svaradi: tala þú! 13. Og konan sagdi: hvørs vegna upphugsar þú slíkt gégn Guds fólki? og þegar Kóngurinn hefir þannig talad, er hann svo sem sekur, þared Konúngurinn lætur ei sinn útskúfada koma heim aptur. 14. Því deya hljótum vér, og eins og vatn erum vér, sem hellt er á jørdina og einginn gétur handsamad aptur, og skyldi þá ei hátignin hafa laungun til, og hugsun á, ad útskúfa ekki frá sér þeim útskúfada? 15. Eg er nú kominn til ad tala þessi ord vid minn herra Konúnginn, því fólkid hræddi mig; þá hugsadi þín ambátt: eg vil þó tala vid Konúnginn; máské Konúngurinn gjøri eptir ordi sinnar ambáttar. 16. Já Konúngurinn mun bænheyra sína am-

V. 37. *a.* Kap. 3, 3. V. 4. *b.* 2 Kóng. 6, 26. V. 11. *c.* 1 Sam. 14, 45. 1 Kóng. 1, 52.

bátt og frelsa sína ambátt, mig og minn son af hendi þess manns sem vill afmá hann af Guds arfleifd. 17. Og svo hugsadi þín ambátt: ord míns herra Konúngsins verda mér þó til huggunar, því sem Guds eingill a), svo er minn herra Konúngurinn, í því ad heyra gott og íllt; því sé Drottinn þinn Gud med þér.

18. Og Konúngurinn svaradi og mælti til konunnar: leyn þú mig eingu sem eg spyr þig ad. Og konan sagdi: minn herra Konúngurinn tali! 19. Og Kóngurinn mælti: er ekki Jóabs hønd med þér í øllu þessu? og konan svaradi, og mælti: svo sannarlega sem minn herra Konúngurinn lifir, þad er einmidt eins og minn herra Konúngurinn segir, já, þinn þénari Jóab, hann hefir skipad mér þetta og hann hefir lagt þinni ambátt øll þessi ord í munn. 20. Til ad koma málefninu í þetta horf hefir þinn þénari Jóab gjørt þetta; en minn herra er vís sem Guds Eingill, svo hann veit allt á jørdunni.

21. Og Konúngurinn sagdi til Jóabs: sjá! eg hefi nú gjørt þetta, svo far þá og sæktu þann únga mann Absalon. 22. Þá féll Jóab á sitt andlit til jardar og laut, og blessadi Konúnginn og mælti: í dag reynir þinn þénari ad eg hefi fundid nád fyrir þínum augum, minn herra Konúngur, þared Konúngurinn hefir farid eptir ordi síns þénara. 23. Svo tók Jóab sig til, og fór til Gesur, og kom med Absalon til Jerúsalem. 24. En Konúngur mælti: hann fari í sitt hús og sjái ei mitt auglit. Svo fór Absalon í sitt hús, og Kóngsins auglit sá hann ekki.

25. En medal Israels manna var einginn svo fídur sem Absalon, og fór mikid ord af því; milli hæls og hvirfils voru eingin lýti á honum. 26. Og þegar hann skar hár sitt — þad var skorid einusinni á ári — því þá þad vard honum of þúngt skar hann þad — svo vó hárid af høfdinu á honum 2 hundrud sikla silfurs eptir Konúngs vigt. 27. Og Absalon fæddust tveir synir og ein dóttir, hún hét Tamar; hún var fríd kona ásýndum.

28. Og svo var Absalon tvø ár í Jerúsalem og sá ekki Kóngsins auglit. 29. Þá gjørdi Absalon bod eptir Jóab til ad senda hann til Kóngsins, en hann vildi ekki til hans koma; og hann sendi aptur í annad sinn; en hann vildi ekki koma. 30. Þá sagdi hann til sinna þjóna: Jóab á akur áfastann vid minn og þar á hefir hann bygg, farid nú og kveikid í því med eldi. Og þjónar Absalons kveiktu í því med eldi. 31. Þá tók Jóab sig til og kom til Absalons í hans hús, og mælti vid hann: því hafa þjónar þínir kveikt í mínum akri med eldi? 32. Og Absalon sagdi vid Jóab: sjá! eg sendi til þín og sagdi: kom híngad, ad eg sendi þig til Konúngsins, og seg: hví em eg kominn frá Gesur? betra væri mér ad vera þar enn! og nú vil eg sjá Kóngsins auglit; en sé eg sekur, þá drepi hann mig. 33. Þá gékk Jóab fyrir Konúng og sagdi honum þetta. Og hann kalladi Absalon, og hann (Absalon) kom fyrir Konúng, og laut til jardar med sínu andliti Konúnginum, og Konúngurinn kysti Absalon.

## 15. Kapítuli.

Absalons uppreisn. Davíds flótti.

1. Eptir þetta skédi þad ad Absalon útvegadi sér vagna og hesta og 50 menn sem fyrir honum hlupu b). 2. Og Absalon var árla á fótum og gékk á veginn sem lá innad borgarhlidinu; og hvørn þann mann sem mál hafdi ad kjæra fyrir Kóngi, þann hinn sama kalladi Absalon til sín, og sagdi vid hann: frá hvada stad ert þú? og segdi madurinn: þinn þjón er af einni Israels ættkvísl, 3. þá tók

V. 17. *a.* Kap. 19, 27. V. 1. *b.* 1 Kóng. 1, 5.

Absalon þanníg til orda vid hann: þitt málefni er rétt og hreint, en einginn er settur af Kónginum sem hans vegna líti á þína søk. 4. Og Absalon mælti: eg vildi óska ad eg væri settur dómari í landinu, svo hvør madur, sem hefdi misklíd, eda mál ad sækja, gjæti komid til mín, þá skyldi eg hjálpa honum til ad ná rétti sínum! 5. Og þegar einhvør nálægdi sig honum, til ad lúta honum, rétti hann fram høndina, og greip til hans og kysti hann. 6. Þannig breytti Absalon vid alla Israelsmenn, sem í málum sínum komu fyrir Konúnginn. Og Absalon stal hjørtum Israelsmanna a).

7. Og þad skédi eptir 40 ár b), ad Absalon kom ad máli vid Konúnginn, og sagdi: leyf þú mér ad fara til ad leysa heit í Hebron sem eg hefi gjørt Drottni. 8. Því heit hefir þjón þinn unnid c), þá eg var í Gesur á Sýrlandi, því eg sagdi: láti Drottinn mig aptur komast til Jerúsalem, svo vil eg þjóna Drottni. 9. Og Konúngurinn sagdi til hans: far þú í fridi d)! og svo tók hann sig til og fór til Hebron. 10. Og Absalon sendi njósnarmenn til allra Israels ættkvísla og sagdi: þegar þér heyrid hljóm básúnunnar, þá segid: Absalon er ordinn Kóngur í Hebron. 11. Og med Absalon fóru 2 hundrud manns úr Jerúsalem, þeim var bodid og fóru í grandleysi sínu, og þeir vissu ekki hvad undirbjó. 12. Og Absalon sendi og lét kalla Gilonítann Akítofel e), rádgjafa Davíds, úr hans stad, Gilo, þá hann var ad fórnfæríngu. Og samblásturinn vard mikill, og ad Absaloni drógst mikill lids abli.

13. Þá kom madur nokkur til Davíds og mælti: hjarta Israelsmanna hneigist nú ad Absalon. 14. Þá mælti Davíd vid alla sína þénara sem hjá honum voru í Jerúsalem: tøkum oss upp og flýum! því ekki mun Absalon géfa oss grid. Hradid ydur ad flýa, ad hann ekki sviplega nái oss, og leidi yfir oss ólukku, og slái stadinn med sverdseggjum! 15. Og Kóngsins þénarar søgdu til Kóngsins: hvad sem helst minn herra Kóngurinn velur, þá sjá! vér erum þínir þjónar. 16. Þá lagdi Kóngur af stad, og allt hans hús med honum, og Konúngurinn lét eptir verda 10 hjákonur sínar f) til ad gjæta herbergjanna. 17. Svo lagdi Kóngur af stad og allt þad fólk sem honum fylgdi, og nam stadar hjá Bet = Merhak. 18. Og allir hans þénarar geingu med honum og øll hyrdin, og allir Gatítarnir, 6 hundrud manns, sem komid høfdu med honum frá Gat, þeir geingu med Konúnginum.

19. Þá sagdi Davíd vid Itaí, Gatítann g): hvar fyrir vilt þú og med oss fara? snú þú aptur, og vertú hjá Konúnginum! því útlendur madur ert þú, og á gamlar stødvar fer þú aptur. 20. Í gjær komstu og í dag skyldi eg hafa þig med á þessum flótta? Eg fer eitthvad sem fætur toga. Snú þú aptur og taktu med þér brædur þína med elskusemi og trygd. 21. En Itaí svaradi Konúnginum og mælti: svo sannarlega sem Drottinn lifir, og minn herra Konúngurinn lifir! á hvørjum stad sem minn herra Konúngurinn verdur, þad sé til dauda, þad sé til lífs, á þeim sama stad mun þinn þjón vera h). 22. Og Davíd sagdi til Itaí: kom þú þá med og far þú á undan! Og svo fór Gatítinn Itaí og allir hans menn á undan, og øll børnin sem med honum voru. 23. En allt landid grét hástøfum, þegar allt fólkid fór áfram, og Kóngurinn gékk yfir lækinn Kedron; og allt fólkid héllt á fram veginn til óbygdanna. 24. Og sjá! þar var og

V. 6. *a.* Gen. 31, 20. V. 7. *b.* Frá því Davíd var smurdur til Kóngs. V. 8. *c.* Gen. 28, 20. V. 9. *d.* 1 Sam. 20, 42. V. 12. *e.* Kap. 23, 34. V. 16. *f.* Kap. 16, 21. V. 19. *g.* Kap. 18, 2. V. 21. *h.* Rut. 1, 16.

Sadok a) og allir Levítarnir med honum og
báru Guds løgmáls ørk, og þeir settu nidur
Guds ørk; og Abíatar stadnæmdist þar b),
þángad til ad allt fólkid var komid burt úr
stadnum.
25. En Kóngurinn sagdi vid Sadok: far
þú med Guds ørk aptur inn í stadinn! finni
eg nád í augum Drottins, mun hann leida mig
heim aptur, og láta mig sjá hana og sinn bú-
stad. 26. En ef hann segir svo: eg hefi ekki
þóknan á þér — sjá! hér em eg — gjøri hann
vid mig þad sem honum gott þykir c). 27.
Og Kóngurinn sagdi vid prestinn Sadok:
ert þú ekki Sjáandi d) far þú til stadarins í
fridi og Akímas son þinn, og Jónatan sonur
Abíatars e) ykkar bádir synir med ykkur. 28.
Sjáid! eg vil hafast vid á sléttlendinu í óbygd-
inni, þángad til eg fæ eitthvad tídinda, sem þid
látid til mín komast.
29. Og svo fluttu þeir Sadok og Abíatar
Guds ørk aptur til Jerúsalem, og voru þar. 30.
En Davíd fór upp vidsmjørsvidarfjallid og gékk
grátandi med huldu høfdi, og berfættur, og allt
fólkid sem med honum var, hvør og einn huldi
líka høfud sitt, og gékk grátandi. 31. Og menn
søgdu Davíd þessi tídindi: Akítófel er medal
þeirra sem samsvarist hafa med Absalon. Þá
mælti Davíd: Drottinn gjør þú Akítófels ráð
ad heimsku! 32. En sem Davíd kom uppá
hædina, þar sem menn voru vanir ad tilbidja
Gud, sjá! þá mætti honum Arkítinn Húsaí, í
rifnum klædum, og med mold yfir sínu høfdi.
33. Og Davíd sagdi vid hann: farir þú med
mér, verdur þú mér til tafar. 34. En ef þú
fer til stadarins og segir vid Absalon: þinn þjón,
ó Konúngur! vil eg vera, þjón fødur þírs var
eg fyrir skémstu, en nú er eg þinn þjón; svo
munt þú gjøra Akítófels ráð ad eingu mér í
hag. 35. Og eru ekki hjá þér þar prestarnir
Sadok og Abíatar; og láttu nú sjá, allt sem
þú heyrir í Kóngsins húsi, þad láttu þá prest-
ana Sadok og Abíatar vita. 36. Sjá! hjá
þeim eru bádir synir þeirra, Akímas sonur Sa-
doks og Jónatan sonur Abíatars. Látid þá
færa mér øll þau tídindi sem þid fáid. 37.
Svo kom Húsaí vinur Davíds í stadinn, um
þad leiti sem Absalon kom til Jerúsalem.

## 16. Kapítuli.

*Siba og Simeí. Absalon kémur til Jerúsalem.*

1. Og Davíd var kominn spølkorn frá hæd-
inni þegar Siba f), Mefibósets þjón, kom á
móti honum med tvo klifjada asna; á þeim voru
2 hundrud braud og hundrad rúsínu-klasar, og
hundrad fíkna-klasar og brúsi af víni, 2. og Kóng-
ur mælti vid Siba: hvad villtu gjøra med þetta?
og Siba svaradi: Asnarnir séu til reidar handa
Kóngsins húsi, og braudin og fíkjurnar til mat-
ar handa sveinunum, og vínid til drykkjar fyr-
ir þá sem ørmagnast kunna í eydimørkinni. 3.
Og Kóngur mælti: hvar er sonur þíns herra?
Og Siba svaradi Konúngi: sjá! hann er kyrr
í Jerúsalem, því hann sagdi: í dag mun Is-
raels hús géfa mér aptur Kóngsríki fødur míns!
4. Og Kóngur mælti vid Siba: sjá! allt þad
sem Mefibóset á, þad sé þitt! og Siba mælti:
eg hneigi mig! æ, ad eg mætti finna nád í aug-
um g) míns herra Konúngsins!
5. Og þá Konúngurinn Davíd kom til Ba-
hurim, sjá! þá kom þadan madur nokkur af ætt-
um Sáls húss, Símeí ad nafni sonur Gera;
hann gékk fram bølvandi h), 6. og kastadi stein-

V. 24. *a.* 1 Kron. 12, 28. *b.* Stadnæmdist þar nefn. hvar ørkin stód. Adrir leggja út: offradi brennifórnum. V. 26. *c.* Kap. 10, 12. 1 Sam. 3, 18. 1 Makk. 3, 60. V. 27. *d.* Sjáandi, sá sem hefir gáfu til ad vita hid ókomna. 1 Sam. 9, 9. *e.* 1 Kóng. 1, 42. V. 1. *f.* Kap. 9, 2. V. 4. *g.* Gen. 30, 27. 1 Sam. 1, 18. 27, 5. V. 5. *h.* 1 Kóng. 2, 8.

um eptir Davíd og eptir øllum þénurum Davíds Kóngs, og eptir øllu fólkinu og øllum køppunum á hægri og vinstri hønd vid hann. 7. Og svo komst Símeí ad ordi í sínum formælíngum: áfram, þú blódhundur! þú illmenni a)! 8. Nú lætur Drottinn þér í koll koma allt Sáls húss blód, í hvørs stad þú ert ordinn Konúngur og lætur Kóngsríkid koma í hendur sonar þíns Absalons, og nú ertu í krøggum, því blódhundur ert þú.

9. Þá mælti Abísaí sonur Serúja til Kóngsins: hvar fyrir skal þessi daudi hundur formæla mínum herra Konúnginum? lofadu mér ad fara og høggva af honum hausinn. 10. En Kóngur svaradi: hvad á eg vid ykkur ad sýsla Serújasynir b)? formæli hann, því Drottinn hefir skipad honum: formæl þú Davíd! og hvør vogar ad segja: því gjørir þú þad?

11. Og Davíd sagdi vid Abísaí og alla sína þénara: sjá! sonur minn, sem af mér er getinn, sækist eptir mínu lífi; hví þá ekki þessi Benjaminíti! látid hann formæla, því Drottinn hefir bodid honum þad. 12. Ské má ad Drottinn líti á mína eymd, og bæti mér, þessa hans formælíng í dag, med gódu. 13. Svo fór Davíd sína leid og hans menn; en Símeí fór med fjallshlídinni gagnvart honum, og kastadi moldarhnausum. 14. Og Kóngurinn og allt þad fólk sem med honum var kom ørþreytt (í áfángastad) og hvíldi sig þar.

15. En Absalon og allt fólk Israelsmanna, kom til Jerúsalem og Akítófel med honum. 16. Og þad skédi, þá Arkítinn Húsaí c), vinur Davíds, kom til Absalons, mælti Húsaí vid Absalon: lifi Konúngurinn! lifi Konúngurinn! 17. Og Absalon sagdi vid Húsaí: er þetta trygd þín vid vin þinn? því fórstu ekki med vin þínum? 18. Og Húsaí mælti vid Absalon: nei! heldur hvørn sem Drottinn útvelur og þetta fólk, og allir Israelsmenn, þeim hinum sama vil eg tilheyra, og hjá honum vera. 19. Og í annan stad: hvørjum vil eg þjóna? er þad ei syni hans? Eins og eg þjónadi fødur þínum, svo vil eg vera hjá þér.

20. Og Absalon mælti vid Akítófel: leggid til rád, hvad vér nú skulum gjøra! 21. Og Akítófel sagdi til Absalons: sof þú hjá fridlum fødur þíns sem hann lét eptir verda, til ad geyma hússins, þá fréttir allur Israel ad þú hefir gjørt þig vidbjódslegann d) fødur þínum, og svo verda styrkar høndur allra þeirra sem med þér eru. 22. Svo settu þeir upp tjald fyrir Absalon á þakinu og Absalon lagdist med fridlum fødur síns, fyrir augum alls Israels. 23. En þau rád sem Akítófel gaf í þá daga, gildtu, sem menn hefdu rádfært sig vid Gud um þann sama hlut; svo gildtu hans rád bædi hjá Davíd og Absalon.

## 17. Kapítuli.

Akítófels rádleggíng og afdrif.

1. Og Akítófel sagdi vid Absalon: láttu mig nú velja mér 12 þúsund manns, svo skal eg taka mig til og fara eptir Davíd í nótt, 2. og yfirfalla hann medan hann er magnlaus af þreytu, og eg skal hræda hann; og allt fólkid sem med honum er, mun flýa, og þá skal eg fella Kónginn, þegar hann er ordin einn; 3. en leida allt fólkid aptur til þín. Allir koma tilbaka, þegar sá madur er fallinn sem þú ofsækir; allt fólkid verdur rólegt. 4. Þetta tal líkadi Absalon vel og øllum þeim eldstu í Israel. 5. Og Absalon mælti: kallid samt Húsaí Arkítann e), ad vér heyrum og hvad hann segir. 6. Og svo kom Húsaí til Absalons, og Absalon taladi til hans og mælti:

V. 7. *a.* Hebr. Belialsson. V. 10. *b.* Kap. 19, 22. V. 16. *c.* Kap. 15, 37. V. 21. *d.* 1 Sam. 11, 4. 27, 12. V. 22. Þök voru flöt hjá Gydingum. V. 5. *e.* Kap. 16, 16.

þannig hefir Akítófel talad: eigum vér ad gjøra þad sem hann segir? ef ekki svo, tala þú!

7. Og Húsai sagdi til Absalons: rádid er ekki gott, þad sem Akítófel hefir géfid núna. 8. Og Húsai sagdi: þú þekkir fødur þinn og hans menn, þeir eru hetjur og illir í skapi sem byrna á mørkinni, þá hún er rænd sínum húnum, og fadir þinn er strídsmadur og verdur ekki í nótt hjá fólkinu. 9. Sjá! þad gétur skéd, ad hann hafi nú falid sig í einhvørjum hellirnum edur á ødrum stad; og falli nú nokkrir í fyrstunni (af þínum mønnum) þá fréttist þad, og allir segja: fólkid sem fylgir Absalon hafdi ósigur. 10. Og jafnvel þeir hraustari, sem høfdu hug sem ljón, géta þá ordid huglausir; því allur Israel veit ad fadir þinn er hetja, og þeir røskir menn sem med honum eru. 11. En þetta er mitt rád: safna þú ad þér øllum Israel frá Dan til Berseba, svo mørgum sem sandi á sjáfarstrønd, og þú verdur sjálfur ad gánga í orustuna. 12. Og þegar vér hittum hann, hvar sem þad svo er, skulum vér falla yfir hann eins og døgg fellur yfir jørdina, og af honum og øllum þeim mønnum sem med honum eru skal ekki einn eptir verda. 13. Og flýi hann í einhvørja borgina, þá skal allur Israel bera reipi ad sømu borg, og vér skulum draga hana í læk þángad til þar finnst ekki einn steinmoli framar. 14. Og Absalon og allir Israelsmenn søgdu: betra rád géfur Arkítinn Húsai enn Akítófel. En Drottinn hafdi hagad því svo, ad Akítófels góda rád vard ad eingu, til þess ad Drottinn gjæti leidt ógjæfuna yfir Absalon.

15. Og Húsai mælti vid prestana Sadok og Abíatar: þad og þad hefir Akítófel rádlagt Absalon og þeim eldstu í Israel, og þad og þad hefi eg rádlagt. 16. Og sendid nú sem skjótast og látid Davíd vita þetta og segid: vertu ekki í nótt á sléttlendinu í eydimørkinni, heldur skaltu fara yfir ána, svo Kóngurinn ekki tortínist og þad fólk sem med honum er. 17. En Jónatan og Akimas voru vid brunninn Rogel a) og stúlka fór med þessi bod til þeirra, ad þeir skyldu fara og færa Konúnginum Davíd þessi tídindi; þeir máttu ekki láta sjá sig med því ad koma inní borgina. 18. En smásveinn nokkur sá þá og sagdi Absalon frá, en þeir hrødudu ferdinni og komu í hús manns nokkurs í Bakarim, sem hafdi brunn í sínum gardi, og þeir stigu nidur í brunninn. 19. Og konan tók dúk og breiddi yfir munnann á brunninum, og dreifdi þar yfir grjónum svo ad ekki skyldi á bera. 20. Þá komu Absalons menn til konunnar í húsid og søgdu: hvar eru þeir Akimas og Jónatan? og konan sagdi vid þá: þeir eru komnir yfir lækinn. Og þeir leitudu og fundu ekki, og snéru aptur til Jerúsalem.

21. En sem þeir vóru farnir, geingu hinir upp úr brunninum, héldu áfram ferd sinni og søgdu Davíd Konúngi, og mæltu vid Davíd: takid ydur upp og farid sem ódast yfir ána, því þesshátttar rád hefir Akítófel géfid ydur á móti. 22. Þá tók Davíd sig upp og allt fólkid, sem med honum var, og þeir fóru yfir Jórdan ádur enn lýsti af degi, þá søknudu þeir einkis manns sem ordid hefdi eptir hinumegin vid Jórdan. 23. En sem Akítófel sá, ad ekki var farid ad hans rádum, sødladi hann sinn asna, tók sig til og fór heim til sín, í sína borg, rádstafadi sínu húsi b), og heingdi sig; og hann dó, og var jardadur í grøf fødur síns.

24. En Davíd kom til Mahanaim, og Absalon fór yfir Jórdan, hann og allir Israels menn med honum. 25. Og Absalon setti Amasa í Jóabs stad yfir herinn; en Amasa var sonur manns nokkurs Israelita sem hét Itra, er hafdi lagst med Abígael, dóttur Nahas c),

V. 17. *a.* Jós. 15, 7. 1 Kóng. 1, 9. V. 23. *b.* Esa. 38, 1. V. 25. *c.* Kallast og Isai 1 Kron. 2, 13. — 17.

systur Seruja, módur Jóabs. 26. Og Ísrael og Absalon setti herbúdir sínar í landinu Gilead. 27. Og þad skédi þá Davíd kom til Mahanaim, ad Sobi Nahasson af Rabba, af Ammons børnum, og Makir Ammíelsson af Lodabar a) og Gileadítinn Barsilai, af Roglim b) 28. færdu Davíd og fólkinu sem med honum var, sængur, skálar, potta, hveiti, bygg, mél, steikt ax, ertur, baunir, og steikt grjón, 29. og hunáng og mjólk, saudi og osta úr kúamjólk, til fædu; því þeir hugsudu: fólkid er húngrad, þreytt og þyrst í eydimørkinni.

## 18. Kapítuli.

Absalons afdrif.

1. Og Davíd kannadi fólkid sem med honum var og setti høfudsmenn yfir þúsund og høfudsmenn yfir hundrad. 2. Og Davíd sendi fólkid frá sér, þridjúng med Jóab, og þridjúng med Abísai Seruja syni bródur Jóabs, og þridjúng med Gatítanum Itai; og Kóngur sagdi vid fólkid: eg vil fara í orustuna med ydur, 3. en fólkid sagdi: þú skalt ekki fara, því þó vér flýum, svo géfa þeir oss eingann gaum, og þó hélftin af oss falli, svo munu þeir ekki um oss skeita, því þú ert einn sem 10 þúsundir af oss, og þad er betra ad þú sért oss ad lidi úr borginni. 4. Og Kóngur sagdi til þeirra: þad sem ydur lítst vil eg gjøra. Og Kóngur stód vid hlid borgarinnar, og allt fólkid fór út, hundrudum og þúsundum saman. 5. En Konúngur gaf skipun þeim Jóab, Abísai og Itai og sagdi: farid vægilega med c) únglínginn Absalon! og allt fólkid heyrdi Kónginn géfa þessa skipun, vidvíkjandi Absalon. 6. Fólkid lagdi svo til orustu vid Ísrael og bardaginn hófst í Efraims skógi. 7. Og Ísraels fólk hafdi ósigur fyrir Davíds mønnum, og mannfallid vard mikid á þeim sama degi, 20 þúsund manns (féllu). 8. Og bardaginn útdreifdist um allt landid, og skógurinn vard fleirum mønnum ad lífstjóni heldur enn sverdid á þeim degi.

9. En svo vildi til ad Davíds menn komu auga á Absalon. Hann reid múlasna, og múlasninn kom undir þéttar greinir eikar nokkurrar, þá festist høfud hans í eikinni og hann dínglaði þar milli himins og jardar, en múlasninn rann framundan honum. 10. Þá kom madur auga á hann, og sagdi Jóab, og mælti: sjá! eg hefi sjed Absalon hánga í eik. 11. Og Jóab sagdi vid manninn sem þetta mælti: heyrdu! hafir þú sjed hann, því vanst þú þá ekki á honum? þad hefdi verid mitt ad géfa þér 10 sikla silfurs og belti. 12. Og madurinn sagdi vid Jóab: og þó eg fengi útí hønd þúsund sikla silfurs, mundi eg ekki leggja hønd á Kóngs soninn; því í vorri áheyrn hefir Konúngurinn bodid þér og Abísai og Itai, og sagt: géfi hvør ydar fyrir síg gaum ad þeim únga manni Absalon! 13. En ef eg hefdi verid mér sjálfum vestur og bakad mér lífstjón — Kónginum dylst ekkért — mundir þú sjálfur hafa stadid fjærri mér. 14. Og Jóab mælti: ekki má eg leingur tefja hjá þér! og hann þreif þrjú spjót í sína hønd, og lagdi þeim í gégnum Absalons hjarta. Enn nú lifdi hann í eikinni. 15. Þá geingu þarad 10 menn, skjaldsveinar Jóabs, og unnu á Absalon, og drápu hann.

16. Þá blés Jóab í básúnu d) og fólkid hætti ad elta Ísrael; því Jóab stansadi fólkid. 17. Og þeir tóku Absalon og snørudu honum í stóra grifju þar í skóginum, og gjørdu yfir honum mikinn grjót haug e), og allur Ísrael flúdi, hvør í sitt tjald. 18. En Absalon hafdi, medan hann lifdi, tekid og sett sér minnis-merki

V. 27. *a.* Kap. 9, 4. *b.* Kap. 19, 32. 1 Kóng. 2, 7. V. 5. *c.* v. 12. V. 16. *d.* Kap. 2, 28. 20, 22. V. 17. *e.* Jós. 7, 26.

sem stendur í Konúngs dalnum, því hann sagdi: eg á eingann son til ad halda uppi minníngu míns nafns, og hann kalladi minnismerkid sínu nafni; og þad er kallad Absalons minnismerki allt til þessa dags. 19. En Akimas sonur Sadoks a) mælti: eg ætla ad hlaupa ad færa Konúnginum þá fregn, ad Drottinn hafi rétt hluta hans á hans óvinum. 20. Og Jóab sagdi til hans: þú ber eingin góð tídindi í dag, í annad sinn skaltu fara med bodskap, því Kóngs sonurinn er daudur. 21. En vid Kusíta nokkurn sagdi Jóab: far þú og seg Konúngi hvad gjørst hefir. Og Kusítinn laut Jóab, og rann af stad. 22. Og Akimas sonur Sadoks kom aptur ad máli vid Jóab og sagdi: hvad um gildir, lofa þú mér ad hlaupa á eptir Kusítanum! og Jóab svaradi: hvørs vegna vilt þú hlaupa, minn son? þú hefir eingin góð tídindi ad bera. 23. Hinn (svaradi) hvad sem skér og eptir fer, eg vil hlaupa, og hann (Jóab) sagdi: svo hlauptu! og Akimas hljóp veginn yfir eingid og komst á undan Kusítanum.

24. En Davíd sat milli tveggja borgarhlidanna, og vardmadur gékk á þaki hlidsins á veggnum, og leit upp og litadist um, og sjá! þar kom madur hlaupandi, 25. og vardmadurinn kalladi og sagdi þad Konúngi, og Konúngur mælti: sé hann einsamall, svo er bodskapur í hans munni, og hann kom nær og nær. 26. Og vardmadurinn sá annan mann koma hlaupandi, og vardmadurinn kalladi nidur í hlidid, og mælti: madur kémur hlaupandi; og Kóngur ansadi: hann er og sendibodi. 27. Og vardmadurinn mælti: hlaup hins fyrra er líkt hlaupi Akimas Sadoks sonar. Og Kóngur svaradi: þad er gódur madur og hann kémur med gódan bodskap.

28. Og Akimas kalladi og mælti til Konúngs: Fridur! og hneigdi sig fyrir Konúngi med andlitinu til jardar, og mælti: lofadur sé Drottinn þinn Gud, sem hefir ofurgéfid þá menn, er upplyftu sinni hønd á móti mínum herra Konúnginum. 29. Og Konúngur spurdi: lídur únglíngnum Absalon vel? og Akimas svaradi: eg sá øs mikla þegar Jóab sendi þinn þjón og Kongsins þjón; en eg veit ekki hvad þad var. 30. Og Konúngur mælti: gakk þú til hlidar og vertu þarna! og hann gékk og stód þar.

31. Og sjá! þá kom Kúsítinn, og Kúsítinn mælti: minn herra Konúngurinn medtaki þann bodskap, ad Drottinn hefir rétt hluta þinn á øllum þeim sem gjørdu uppreisn móti þér. 32. Og Kóngur mælti vid Kúsítann: lídur únglíngnum Absalon vel? Og Kúsítinn svaradi: fari eins fyrir óvinum míns herra, Konúngsins og øllum sem gjøra illa uppreisn móti þér, eins og fyrir þessum únglíngi. 33. Þá vard Konúngi bilt vid, og hann gékk uppí salinn yfir borgarhlidinu, og grét; og líka sagdi hann í því hann gékk burt: sonur minn Absalon! minn sonur, minn sonur Absalon! æ ad eg hefdi dáid í þinn stad! Absalon, sonur minn, sonur minn!

## 19. Kapítuli.

Davíd kémst aptur til Jerúsalem.

1. Og Jóab var sagt frá þessu, sjá! Konúngurinn syrgir og grætur Absalon! 2. Og sigurinn vard á þeim degi ad sorg fyrir allt fólkid, því fólkid heyrdi þann sama dag, ad menn søgdu: Konúngurinn harmar son sinn, 3. og fólkid stalst á þeim degi inní stadinn, eins og þad fólk lædist inn, sem hefir ordid fyrir þeirri sneipu ad flýa úr orustu. 4. Og Konúngurinn byrgdi sitt andlit, og Konúngurinn kveinadi hástøfum: sonur minn Absalon! Absalon, sonur minn, sonur minn! 5. Þá gékk Jóab fyrir Konúng inní húsid og mælti: þú hefir í dag

V. 19. a. 1 Kron. 6, 8.

sneipt andlit allra þinna manna, sem hafa í dag frelsad líf þitt og sona þinna og dætra þinna og líf þinna kvenna og líf þinna fridlna, 6. þú elskar þá sem þig hata, og hatar þá sem þig elska; því þú hefir í dag sýnt þad, ad þú metur einkis þína høfudsmenn og þénara; því eg sje þad nú, ad lifdi Absalon, og vid allir hefdum fallid í dag, mundi þér þykja þad makelegt. 7. Og stattu nú upp og gakk út og taladu vinsamlega vid þína þjóna, því eg sver þér vid Drottinn, ad ef þú geingur ekki út, svo verdur einginn madur hjá þér þessa nótt alla; og þad verdur þér verra, en allt þad íllt sem yfir þig hefir komid frá barnæsku og til þessarar stundar. 8. Þá stód Konúngur upp og settist í borgarhlidid. Og menn søgdu þad øllu fólki, og mæltu: sjá! Konúngurinn situr í borgar hlidinu. Þá kom allt fólkid fyrir Konúnginn, en Ísrael var flúinn, hvør til síns heimilis.

9. Og allt fólkid af Ísraels kynkvíslum þráttadi og sagdi: Konúngurinn hefir leyst oss af hendi vorra óvina, og hann hefir frelsad oss af hendi Filisteanna, og nú er hann flúinn úr landi fyrir Absalon. 10. Og Absalon sem vér smurdum til Kóngs yfir oss er fallinn í orustu. Því haldid þér nú kyrru fyrir og sækid ekki Konúnginn?

11. En Davíd Kóngur sendi til prestanna Sadoks og Abiatars og mælti: talid vid þá eldstu í Júda og segid: hvar fyrir viljid þér vera þeir seinustu ad flytja Kónginn heim til sín aptur, þared tal alls Ísraels er komid til Kóngsins, í hans húsi? 12. Þér erud mínir brædur; mín bein og mitt hold a) erud þér, og hvar fyrir viljid þér verda seinastir til ad flytja Kónginn til baka. 13. Og segid Amasa þau mín ord: ert þú ekki mitt hold og bein? Gud gjøri mér þad, og enn framar b)! ef þú skalt ekki vera minn hershøfdíngi alla tíma í Jóabs stad! 14. Og hann hneigdi hjørtu allra Júda manna sem eins manns, og þeir sendu Konúngi þessi ord: „kom þú til baka og allir þínir þjónar". 15. Og svo kom Konúngurinn til baka og ad Jórdan, og Júda kom til Gilead móti Konúngi til ad flytja hann yfir Jórdan.

16. Þá kom Simeí, sonur Gera, Benjamínítinn c), med flýtir frá Bakurim og fór á móti Konúnginum Davíd med Júda mønnum, 17. og þúsund manns af Benjamín med honum, og Siba d), þénari Sáls húss og hans 15 synir og 20 þrælar med honum, og þeir fóru yfir Jórdan á móti Konúngi. 18. En ferja var á ánni, til ad sækja Kóngsins hús, og til ad gjøra hvad hann vildi, og Simeí, sonur Geras, féll til fóta Konúngi, þá hann fór yfir Jórdan. 19. Og hann sagdi vid Konúnginn: minn herra tilreikni mér einga synd, og hugsi ekki til þess, hvørsu þinn þræll hagadi sér, á þeim degi er minn herra Kóngurinn fór frá Jerúsalem, svo ad Konúngurinn gefi því gaum! 20. Því eg þinn þræll veit ad eg syndgadi; og sjá! eg er í dag fyrstur kominn, af Jóseps húsi, til ad mæta mínum herra Konúnginum. 21. Þá tók Abísai Serujason til orda og mælti: ætti ekki Simei ad missa lífid fyrir þad, ad hann hefir formælt Drottins smurda? 22. Og Davíd sagdi: hvad hefi eg vid ydur ad sýsla, þér Seruja synir e), ad þér í dag verdid mínir mótstødumenn f)? skal nokkur madur í Ísrael verda líflátinn í dag? veit eg ekki ad í dag verd eg Kóngur í Ísrael? 23. Og Konúngur mælti vid Simei: þú skalt ekki deya! og Konúngur sór honum þad.

---

V. 12. *a.* v. 13. Kap. 5, 1. V. 13. *b.* Kap. 3, 9. 35. V. 16. *c.* 1 Kóng. 2, 8. fl. V. 17. *d.* Kap. 9, 2. 16, 1. V. 22. *e.* 2 Kóng. 3, 13. *f.* Matth. 16, 23.

24. Og Mefiboset a) sonur Sáls kom á móti Konúnginum; hann hafdi hvörki þvegid sína fætur, né greidt sitt skégg, né þveigid sín klædi, frá þeim degi sem Kóngurinn flýdi, allt til þess dags, þá hann lukkulega kom heim aptur. 25. Og þá hann kom á móti Kónginum í Jerúsalem, sagdi Kóngur vid hann: því fórstu ekki med mér Mefiboset? 26. Og hann svaradi: minn herra Konúngur! þræll minn prettadi mig, því þinn þénari hugsadi: eg skal sødla minn asna og rída honum og fara til Kóngsins, því fótlami er þinn þénari. 27. Og hann hefir rægt mig vid minn herra Konúnginn; en minn herra Kóngurinn er sem Guds Eingill b)! gjør nú hvad þér gott þykir. 28. Því ekki átti allt míns føđurs hús annad skilid af mínum herra Konúngi enn daudann, og þó settir þú þinn þjón medal þinna møtunauta c). Og hvørn rétt hefi eg þá, og hvørs skal eg bidja Konúnginn framar? 29. Og Konúngur svaradi honum: hvad viltu þá meira tala? Eg segi: þú og Siba skulud skipta økrunum milli ykkar d). 30. Og Mefiboset sagdi vid Konúng: hann má taka þá alla, fyrstad minn herra Konúngurinn er lukkulega heim aptur kominn í sitt hús.

31. Og Gíleadítinn Barsillaí kom frá Roglim og fór med Konúnginum yfir Jórdan og fylgdi honum yfir Jórdan. 32. En Barsillaí var mikid gamall, áttrædur madur, hann hafdi fært Konúngi vistir, medan hann var í Mahanaim e), því hann var mikid audugur madur. 33. Og Konúngur sagdi vid Barsillaí, kom þú nú med mér, eg vil hafa þig hjá mér í Jerúsalem og ala ønn fyrir þér. 34. Og Barsillaí svaradi Konúngi: hvørsu margir munu verda dagar minna lífs ára, ad eg skyldi fara med Konúnginum til Jerúsalem? 35. Í dag er eg áttrædur; ætla eg géti gjørt grein á íllu og gódu? eda ætla þinn þjón finni smekk af því sem hann etur og drekkur? eda gét eg enn þá med heyrninni haft unadsemd af saungmanna og saungkvenna róm? og hvar fyrir skyldi þinn þjón vera til armædu mínum herra Konúnginum? 36. Fyrir stuttan tíma mundi þinn þjón fara med þér yfir Jórdan, og hvarfyrir skyldi Konúngurinn veita mér þessa velgjørd? 37. Láttu þinn þjón snúa heimleidis, ad eg deyi í mínum stad, nálægt grøf fødur míns og módur minnar. En sjá! þinn þjón Kímham mun fara yfir ána med mínum herra Konúnginum, og gjør þú vid hann hvad þér gott þykir! 38. Og Konúngur mælti: Kímham skal fara med mér, og eg skal gjøra vid hann hvad þér gott þykir, og vid þig skal eg gjøra hvad sem þú óskar. 39. Og svo fór allt fólkid yfirum Jórdan, og Kóngurinn fór yfirum og Konúngurinn kysti Barsillaí og hann kvaddi hann, og hann fór heim til sín aptur. 40. Og Konúngurinn hélt áfram til Gilgal f), og Kímham fór med honum og allt fólkid, og Júdamenn fluttu Kónginn og helftin af Ísraelsfólki.

41. En sjá! allir menn af Ísrael komu til Kóngsins, og søgdu vid Kónginn: hvørs vegna hafa vorir brædur Júdamenn stolid þér og flutt þig og þitt hús yfir Jórdan og alla Davíds menn med þér. 42. Og allir Júda menn svørudu Ísraels mønnum: af því Konúngur er oss nákomnari g). Og hvørs vegna reidist þú af þessu? Høfum vér (nokkud) etid af Kónginum h)? eda hefur hann gésid oss gáfur? 43. Og Ísraelsmenn svørudu Júdamønnum og søgdu:

---

V. 24. *a.* Kap. 9, 6. V. 27. *b.* Kap. 14, 17. Postgb. 6, 15. V. 28. *c.* Kap. 9, 11. V. 29. *d.* Kap. 9, 10. 16, 4. V. 31. 1 Kóng. 2, 7. fl. V. 32. *e.* Kap. 17, 27. V. 40. *f.* Sbr. v. 15. V. 42. *g.* Sbr. v. 12. *h.* Adrir: hefir hann feingid oss vistir. V. 43. Sjá 9. v. þessa kapit. Júda voru tvær, Ísrael 10 ættkvíslir; Því þóktist Ísrael eiga 10 parta af Kónginum.

10 parta af Konúnginum og af Davíd líka á eg framyfir þig. Og hvarfyrir hefir þú metid mig lítils? Og var eg ei sem fyrst lagdi þad til, ad sækja skyldi minn Konúng aptur? Og tal Júdamanna var hardara enn tal Israelsmanna.

## 20. Kapítuli.

Um Seba. Davíds helstu menn.

1. Þar var þá vidstaddur vondur madur (Belíalsmadur) sem hét Seba, sonur Bikri, Benjamíniti; hann blés í Básúnu og mælti: vér høfum einga hlutdeild í Davíd, vér eigum ekkért af Isaísyni a)! fari hvør og einn af Israel heim til sín. 2. Þá geingu allir Israelsmenn frá Davíd, og eltu Seba, Bikrason; en Júdamenn héldu sig til síns Konúngs frá Jórdan til Jerúsalem. 3. Og Davíd kom heim til sín, til Jerúsalem. Þá tók Konúngurinn þær 10 fridlur, sem hann hafdi skilid eptir til ad geyma húsins b), og setti þær í vardhald og fékk þeim þar atvinnu; en hann svaf ekki hjá þeim; og þær voru inni læstar til síns daudadags, og lifdu sem ekkjur.

4. Og Kóngurinn kom ad máli vid Amasa og mælti: kalla þú saman fyrir mig Júdamenn til þridja dags og vertu til stadar sjálfur! 5. Þá fór Amasa ad samankalla Júda, en tíminn dróst fyrir honum fram yfir þad sem ákvedid var. 6. Og Davíd sagdi vid Abísaí: nú mun Seba Bikrason vinna oss meiri skada enn Absalon. Taktu nú þjóna þíns herra og far eptir honum ad hann nái eingri víggirdtri borg, og hverfi vorum augum. 7. Þá løgdu af stad med honum Jóabsmenn, hyrdin og allir kapparnir; og þeir fóru frá Jerúsalem, til þess ad veita Seba syni Bikra eptirfør.

8. Þeir voru komnir ad þeim stóra steini hjá Gíbeon, þegar Amasa mætti þeim; en Jóab hafdi belti um sín klædi, er hann var í, og þar utanyfir var beltid sem sverdid hékk í, vid hans hlid í slídrum, og sem hann gékk áfram, rann þad úr slídrum. 9. Og Jóab sagdi vid Amasa: vegnar þér vel, bródir minn? og tók hægri hendinni í Amasa skégg, til ad kyssa hann; 10. en Amasa c) varadi sig ekki á sverdinu sem var í Jóabs hendi, og hann stakk hann med því í kvidinn d), svo hans innísli féllu á jørdina; hann stakk hann ekki aptur, því hann dó. En Jóab og Abísaí bródir hans, fóru eptir Seba syni Bikra. 11. En madur nokkur af sveinum Jóabs stód hjá honum (Amasa) og vard þar eptir, hann mælti: hvør sem heldur med Jóab, og vill Davíd vel, sá fylgi nú Jóab! 12. En Amasa veltist í sínu blódi þar á veginum; og sem madurinn sá ad allt fólkid nam þar stadar, svo vék hann Amasa burt af veginum, og lagdi fat yfir hann, þared hann sá ad hvør madur nam stadar, sem ad honum kom. 13. En sem hann var kominn af gøtunni, þá fylgdi hvør madur Jóab, til ad veita eptirfør Seba syni Bikra. 14. Og hann fór um allar kynkvíslir Israels, allt til Abel og Bet-Maaka e) og um allt Berim, og menn samansøfnudust og fóru med honum.

15. Og þeir komu og settust um hann í Abel Bet-Maaka, og hlódu girdíngu umhverfis stadinn, rétt vid stadarins varnar grafir; og allt fólkid sem var med Jóab, geistist mjøg til ad rífa nidur borgarvegginn. 16. En kona nokkur hyggin kalladi frá borginni: heyrid! heyrid! talid þó vid Jóab: kom þú nær, ad eg géti vid þig talad! 17. Og hann kom nær henni, og konan mælti: ert þú Jóab? hann svaradi: eg em. Og hún sagdi vid hann: heyr þú til þinnar ambáttar! og hann ansadi:

V. 1. *a.* 1 Kóng. 12, 16. V. 3. *b.* Kap. 15, 16. 16, 21. V. 10. *c.* 1 Kóng. 2, 5. *d.* 2 Sam. 3, 27. V. 14. *e.* 2 Kóng. 15, 29.

eg heyri þad! 18. Og hún mælti: tala hefdu menn átt fyrst, spurt skyldu menn hafa í Abel, og þá væri málid á enda. 19. Eg er ein af þeim fridsamlegu og trúlyndu í (borgum) Ísraels, vilt þú deyda borg og módur í Ísrael? hvarfyrir viltu skémma eign Drottins? 20. Og Jóab svaradi og mælti: fjærri, fjærri sé mér, ad eg vilji skémma og eydileggja! 21. svo stendur ekki á þessu máli, heldur hefir madur nokkur, Seba Bikrason, frá Efraimsfjöllum, lyft sínni hönd móti Konúnginum, móti Davíd, framseljid þenna einann, þá skal eg fara burt frá borginni. Og konan sagdi vid Jóab: sjá! hans höfdi skal verda kastad útfyrir borgarvegginn. 22. Þá kom konan til alls fólksins med sín hyggindi, og þeir hjuggu höfudid af Seba Bikrasyni og snörudu því út til Jóabs. Og hann blés í básúnu a), og þeir dreifdust burt frá borginni, hvör heim til sín; en Jóab snéri aptur til Jerúsalem til Kóngsins.

23. En Jóab var fyrir öllum Ísraels her, og Benaja sonur Jójada, var yfir hirdinni (lífvaktinni), 24. og Adoram var Rentumeistari, og Jósafat sonur Ahíluds Sagnameistari. 25. Og Seja var skrifari, og Sadok og Abíatar prestar. 26. Líka var Ira, Jairítinn, Davíds prestur.

## 21. Kapituli.

Þriggja ára hallæri. Sigur yfir Filisteum.

1. Og þar var hallæri á dögum Davíds í þrjú ár í samfellu, og Davíd leitadi Drottins andlitis, og Drottinn sagdi: þad er sökum Sáls, og sökum blódskuldar húsins, af því hann deyddi Gíbeonítana. 2. Þá kalladi Konúngur Gíbeonítana og mælti til þeirra: (en Gíbeonítar eru ekki af Ísraelssonum (Jós. 9, 15—19.) heldur leifar af Amorítum, og Ísraelssynir höfdu svarid þeim eida, en Sál leitadist vid ad tortína þeim af vandlætíngasemi vegna Ísraels og Júdabarna). 3. Og Davíd mælti vid Gíbeonítana: hvad skal eg gjöra fyrir ydur? og hvar med skal eg forlíka, ad þér blessid Drottins eign? 4. Og Gíbeonítar sögdu vid hann: oss er hvörki annt um gull né silfur af Sáls húsi, né um þad ad lífláta nokkurn mann af Ísrael. Og hann mælti: hvad segid þér ad eg skuli gjöra fyrir ydur? 5. Og þeir sögdu vid Konúnginn: sá madur sem tortíndi oss, og hafdi íllt í hug, ad vér skyldum verda afmádir, og ekki til vera í öllu Ísraels landi! 6. Géfid oss sjö menn af hans nidjum, ad vér heingjum þá upp fyrir Drottni í Gíbea Sáls, hins útvalda Drottins. Og Konúngurinn mælti: eg skal géfa ydur þá. 7. En Konúngurinn þirmdi Mefiboset syni Jónatans Sáls sonar, sakir eidsins vid Drottinn, sem var milli þeirra, milli Davíds og Jónatans Sáls sonar. 8. Og Konúngurinn tók báda syni Rispu, dóttur Aja, sem hún hafdi fædt Sál, Armoni og Mefiboset, og 5 syni Merab, dóttur Sáls, sem hún hafdi fædt Adrieli, syni Barsillais, Mahalotítans, 9. og gaf þá Gíbeonítum í hendur, og þeir festu þá upp á fjallinu fyrir Drottni, og svo fórust 7 í einu; en þeir voru deyddir á þeim fyrsta uppskérudegi, í byrjun bygg uppskérunnar. 10. Þá tók Rispa Aja dóttir, dúk úr hári (sorgarklædi) og breiddi hann yfir klettinn frá byrjun uppskérunnar þángad til vatn af himni draup yfir þá (: heingdu) og hún lét ekki fugla himinsins á daginn setjast ad þeim, og ekki villudýrin á næturnar ad þeim komast. 11. Og Davíd var sagt frá, hvad Rispa, dóttir Aja, hjákona

V. 18. Þ. e. hvört erindi Jóabs væri, og hvört borgarmenn vildu framselja Seba. V. 22. *a*, Kap. 2, 28. 18, 16. V. 3. Drottins eign: Gydingaland. V. 5. Í sögu Sals er þessa ekki getid. V. 8. Í textanum stendur Mikel, en sjá 1 Sam. 18, 19. samt 2 Sam: 6, 23.

Sáls gjørdi. 12. Þá fór Davíd og tók bein Sáls og bein Jónatans, sonar hans, frá Jabes í Gílead, sem þeir høfdu stolid a) af torginu í Betsan, hvar Filistear høfdu heingt þá, þegar þeir voru búnir ad slá þá í hel á Gilboa, 13. og þadan fluttu þeir bein Sáls og sonar hans Jónatans; og þeir samansøfnudu beinum þeirra sem heingdir høfdu verid b), 14. og þeir jørdudu bein Sáls og Jónatans sonar hans í Benjamíns landi í Sela, í þeirri grøf sem tilheyrdi fødur hans Kis, og þeir gjørdu allt sem Konúngur hafdi bodid. Og eptir þad bænheyrdi Gud landid.

15. Og enn høfdu Filistear stríd vid Israel. Þá lagdi Davíd af stad og hans menn med honum, og þeir børdust vid Filistea; og Davíd vard módur. 16. En Jesbi í Nob, einn af sonum Rafas (hans spjót vóg 3 hundrud sikla eirs, og hann var girdtur nýu sverdi) — hann ætladi sér ad fella Davíd. 17. Þá hjálpadi Abisai Seruja son honum, lagdi Filisteann og drap hann. Þá sóru Davíds menn honum og søgdu: þú skalt ei héreptir fara med oss leidángur, ad þú ei sløkkvir Israels ljós.

18. Annar bardagi vid Filisteana var í Gob. Þá lagdi Sibkai Husatíti ad velli Saf, sem var einn af sonum Rafas. 19. Og enn var bardagi í Gob vid Filistea, þá feldi Elhanan sonur Jaare-Orgims, Betlehemíti, Golíat Gatíta, en spjótskaft hans var sem vefjar-rifur.

20. En þá stód bardagi hjá Gat, þar var hár madur, sem hafdi 6 fíngur á hvørri hønd, og 6 tær á hvørjum fæti, 24 ad tølu, og hann var líka af Rafas sonum; 21. og hann færdi ad Israelítum, en Jónatan sonur Simea c), bródur Davíds, lagdi hann ad velli. 22. Þessir fjórir voru fæddir Rafa í Gat, og þeir féllu fyrir hønd Davíds og fyrir hønd hans manna.

## 22. Kapítuli.

Þakklætis Sálmur Davíds. (sjá 18 Davíds Sálm).

1. Og Davíd taladi vid Drottinn ord þessara ljóda, á þeim tíma, þá Drottinn hafdi frelsad hann af hendi allra hans óvina og af hendi Sáls, 2. og mælti: Drottinn (er) mitt bjarg, mín borg og minn hjálpari. 3. Gud míns bjargs, til hvørs eg flý, minn skjøldur, horn minnar heillar, mitt vígi og gridastadur, minn frelsari, undan ofbeldinu hjálpar þú mér. 4. Þann vegsamlega kalladi eg, Drottinn, og mér var bjargad frá mínum óvinum. 5. Daudans bodar høfdu umkríngt mig og líftjónsins bylgjur høfdu skélft mig. 6. Heljunnar snørur umspenntu mig, eg var flæktur í daudans møskvum. 7. Eg kalladi til Drottins í mínum þrautum, og til míns Guds hrópadi eg, og hann heyrdi í sinni høll mína raust og mitt óp kom honum til eyrna. 8. Þá bifadist og hristist jørdin, og himinsins grundvøllur nøtradi og hrærdist, af því hann (Drottinn) reiddist. 9. Reyk lagdi úr hans nøsum, og forterandi eld úr hans munni, svo þar af leiptradi. 10. Hann sveigdi himininn, og sté nidur, myrkur var undir hans fótum. 11. Og hann fór áfram á kerúbum og flaug, hann sást á vindsins vængjum. 12. Hann gjørdi dimmuna allt í kríngum sig ad tjaldi, þad þykka vatnsský. 13. Ur glampanum fyrir framan hann brann eldur. 14. Drottinn lét þrumur gánga frá himninum, og sá ædsti lét sinn róm heyra. 15. Hann skaut sínum ørvum, og lét þær fara vída, og eldíngum i ymsar áttir. 16. Og dældir sjáfarins komu í augsýn, grundvøllur jardarinnar vard bersýnilegur, fyrir hót-

V. 12. a. 1 Sam. 31, 12. V. 13. b. Sbr. v. 9. V. 18. 1 Kron. 20, 4. 27, 11. V. 19. Sbr. 1 Kron. 20, 5. V. 20. Sbr. 1 Kron. 20, 6. V. 21. c. 1 Sam. 16, 9.

un Drottins, fyrir blástri hans nasa. 17. Hann
seildist úr hædinni, þreif til mín og dróg mig
úr miklum vøtnum. 18. Hann frelsadi mig
frá mínum óvinum, þeim sterku, frá mínum
hatursmønnum sem høfdu ordid mér yfirsterk-
ari. 19. Þér yfirféllu mig á ólukkunnar degi,
en Drottinn var mín vørn.

20. Hann flutti mig (úr þreyngslum) á víd-
lendi, dró mig þángad, af því hann elskadi
mig. 21. Drottinn umbunadi mér eptir minni
réttvísi, endurgaldt mér eptir hreinku minna handa.
22. Því eg hélt Drottins veg, og þrjóskadist
ekki vid minn Gud. 23. Því øll hans rétt-
indi hafdi eg mér fyrir augum, og frá hans
setníngum vék eg ekki; 24. eg syndgadi ekki á móti
honum, og gjætti mín vid mínum yfirsjónum;
25. því launadi Drottinn mér eptir minni rétt-
vísi, eptir minni hreinku sem hann sá.

26. Vid þá gódu, ert þú gódur, vid þá rád-
vøndu ert þú rádvandur. 27. Vid þá hrein-
skilnu ert þú hreinskilinn; en vid þá følsku ert
þú vidsjáll. 28. Og þeim vesælu mønnum
hjálpar þú, og þín augu líta til þeirra dramb-
látu, ad þú audmýkir þá.

29. Já, Drottinn, þú varst mitt ljós, Drott-
inn upplýsti mína dimmu. 30. Med þér rann
eg á móti hermanna skara, med mínum Gudi
støkk eg yfir borgarveggi. 31. Guds vegir
eru svikalausir, Drottins ord er skírt a), skjøld-
ur b) er hann øllum, sem honum treysta.

32. Því hvør er Gud nema Drottinn, og
hvør er vígi nema vor Gud? 33. Gud er
mitt vígi, hann leiddi þann rádvanda sína
gøtu. 34. Hann gaf mér fætur líka hjartar-
ins og lét mig á mínar hædir c). 35. Hann
kéndi mínum høndum ad berjast og mínum
ørmum ad spenna eirbogann. 36. Þú réttir
mér skjøld þinnar hjálpar, og þín bænheyrsla
upphóf mig. 37. Þú gafst rúm mínum spor-
um d) og mínir øklar veikludust ekki. 38. Eg
elti mína óvini og lagdi þá ad velli, og snéri
ekki fyrri vid, enn eg hafdi afmád þá. 39.
Eg afmádi og sundurmuldi þá, svo þeir gátu
ei uppstadid, þeir hnigu undir mína fætur. 40.
Þú girdtir mig krapti til stríds, þú audmýktir
þá undir mig, sem risu móti mér. 41. Mína
óvini létstu flýa fyrir mér, og mína haturs
menn, ad eg eydileggdi þá. 42. Þeir litudust
um, einginn hjálpari var þar, til Drottins,
hann heyrdi þá ekki. 43. Eg sundurmuldi þá
sem rik jardar, sem saur á gøtum sundurtród,
sundurtrampadi eg þá. 44. Þú frelsadir mig
frá deilum míns fólks, og vardveittir mig, ad
eg skyldi verda høfdíngi þjódanna. Þjódir,
sem eg ekki þekkti, þjóna mér. 45. Synir
enna útlendu tala fagurt í mín eyru, skilabod-
um frá mér hlýda þeir. 46. Utlendra synir
dragast upp, þeir skreidast út úr sínum borgum.

47. Drottinn lifi, vegsamad sé mitt vígi!
lofadur sé Gud, vígid minnar velferdar. 48.
Þú Gud! sem untir mér hefnda, og lagdir fólk-
id undir mig. 49. Sem frelsadir mig frá
mínum óvinum, og hófst mig yfir mína mótstødu-
menn, frá ofbeldismønnunum frelsadir þú mig.
50. Því vil eg vegsama þig, Drottinn! medal
þjódanna og þínu nafni sýngja lof, 51. sem
lénar sínum Kóngi mikla heill, og lætur sínum
smurda nád í té, Davíd,. og hans nidjum
ad eilífu.

## 23. Kapítuli.

Seinustu ord Davíds. Kappar hans.

1. Þetta eru þau sídustu ord Davíds; ord
Davíds Isaísonar, ord þess manns sem hátt var
settur, Jakobs Guds smurda, Israels elsku-
lega sálma skálds. 2. Andi Drottins talar

V. 31. *a.* Sálm. 12, 7. 19, 9. Ordskv: 30, 5. *b.* Gen. 15, 1. Sálm. 7, 11. V. 32. Sbr. Esa. 43, 10. 11. 44, 8. V. 34. *c.* Devt, 33, 29. V. 35. Sbr. Sálm. 144, 1. V. 37. *d.* Sálm. 31, 9.

í mér, og hans orð er á minni túngu. 3. Ísraels Guð mælti, við mig talaði Ísraels vígi:

Réttvís Drottnari yfir mönnum, sá sem drottnar í Guðs ótta: 4. hann er sem morgun ljósið þegar sólin upprennur, sem þokulaus morgun, sem grænka af birtu, og regni sprettur úr jørðunni. 5. Er ekki svo mitt hús fyrir Guði? því eilífan sáttmála hefir hann við mig gjørt, staðfest hann í øllum (greinum) og varðveitt. Já, alla mína velferð og alla mína eptirlángan, mun hann ei láta hana aukast?

6. En þeir vondu, þeir allir eru sem útsnaraðir þistlar; með hendinni tekur einginn á þeim. 7. Hvør sem snertir þá, vopnar sig með járni og spjótskapti, og í eldi verða þeir brendir, þar sem þeir liggja.

8. Þetta eru nøfn kappanna a) sem Davíð hafði: Jóseb-Basebet Takemoníti, høfuðsmaður yfir vagnliðinu; hann veifaði sínu spjóti yfir 8 hundruðum sem fallið høfðu í einu. 9. Og næstur honum Eleasar, Dodoson, Ahohis sonar; hann var einn af þeim þremur køppum með Davíð, þegar þeir gjørðu Filisteum háðúngina, sem þar voru saman komnir til stríðs, og Ísraels menn fóru á móti. 10. Þessi hinn sami stóð upp, og feldi Filistea þángað til hans hønd varð þreytt, og hønd hans toldi við sverðið, og Drottinn gaf mikinn sigur á þeim degi. Og fólkið fór með honum einasta til að ræna.

11. Eptir hann var Samma sonur Ages Hararítans. Filistear søfnuðust saman í einn hóp, þar var akur nokkur fullsprottinn með baunir og fólkið flýði fyrir Filisteum. 12. Þá gékk hann miðt á akurinn og bjargaði því, og lagði að velli Filisteana, og Drottinn veitti mikinn sigur. 13. Og þeir þrír af þeim þrjátíu høfðíngjum fóru af stað og komu um uppskéru tímann til Davíðs í hellirinn Adullam, og hópur af Filisteum lá í dalnum Refaim. 14. Þá var Davíð á fjallinu, en Filistear høfðu setulið í Betlehem. 15. Davíð fékk þá eptirlaungun, og mælti: hvør sækir mér vatn að drekka í brunninn í Betlehem þar við hliðið? 16. Þá brutust þeir þrír kappar í gégnum herbúðir Filisteanna og jusu vatnið úr brunninum í Betlehem við hliðið, og tóku það og færðu Davíð; en hann vildi ekki drekka það og hellti því niður fyrir Drottni, 17. og mælti: fjærri sé mér, Drottinn! að gjøra slíkt! skyldi eg drekka blóð þeirra manna sem stofnuðu sér í slíkann lífs háska? og hann vildi ekki drekka það. Þetta gjørðu þeir þrír kappar.

18. Og Abisai b) bróðir Jóabs Seruja sonar, sá hinn sami var høfuðs maður yfir øðrum þremur, og hann veifaði sínu spjóti yfir þrjú hundruð að velli lagða, og hafði mikið nafn meðal þeirra þriggja. 19. Hann var að sønnu virðtur fram yfir þá þrjá — en ekki kom hann til jafns við hina þrjá.

20. Og Benaja, sonur Jójadas, sem var sonur duglegs manns, er afreksverk hafði unnið, af Kabsel (Jósb: 15, 21). Sá hinn sami feldi tvø Guðs ljón af Móab; og hinn sami fór til og drap ljón í grifju í kafaldi. 21. Sá sami feldi Egyptskann mann, mann nokkurn sem hafði mikið álit, og í hendi þess Egyptska var spjót, en hann fór á móti honum með staf, og reif spjótið úr hendi þess Egyptska og drap hann með hans spjóti. 22. Þetta gjørði Benaja Jojadas sonur, og hann hafði nafn meðal þeirra þriggja kappanna. 23. Af þeim þrjátíu var hann heiðraður; en ekki var hann jafn þremur þeim fyrstu. Og Davíð gjørði hann að sínu leyndarráði.

24. Asahel, bróðir Jóabs, meðal þeirra þrjátíu. Elhanan, sonur Dodo frá Betlehem. 25.

V. 8. *a.* 1 Kron. 11, 10. 11. fl. V. 18. *b.* Kap. 21, 17. 1 Kron. 11, 20. V. 20. Guðs ljón: máské mikla kappa, ólma sem ljón.

Samma, Haradítinn. Elika Haradíti. 26.
Heles, Paldíti. Ira, sonur Ikes, Tekoítans.
27. Abíeser, Antotíti. Mebúna Husatíti. 28.
Salmon, Ahohíti. Maherai, Netofatíti; 29.
Heleb sonur Bahena, Netofatíta. Itai, sonur
Ribais, frá Gíbea í Benjamíns ættkvísl. 30.
Benaja, Píratoníti. Hidai, frá Nahale-Gaas.
31. Abialbon Arbatíti. Asmavet, Barumíti.
32. Eljaba, Salboníti. Jasens synir og Jónatan.
33. Samma, Hararíti. Ahiam, sonur Sar-
ars, Hararíta. 34. Elifelet, sonur Ahasbai,
sonar Maakatis. Eliam, sonur Akitofels, Gíl-
onítans. 35. Hesrai, Karmelíti. Paelai Ar-
biti. 36. Jgal, sonur Natans, frá Soba,
Bani Gadíti. 37. Selek, Ammoníti, Naharai
Berotíti, skjaldsveinn Jóabs, Seruja sonar.
38. Ira Jetitri. Gareb Jetriti. 39. Uría
Hetíti. Allir til samans þrjátíu og sjø.

## 24. Kapítuli.

Fólkstal. Pest.

1. Og reidi Drottins logadi enn yfir Js-
raelsmønnum og hann egndi Davíd gégn þeim,
med því ad segja: af stad! tel þú Jsrael og
Júda. 2. Þá sagdi Konúngurinn vid Jóab,
høfudsmann yfir hernum hjá sér: far þú um
allar Jsraels kynkvíslir, frá Dan til Berseba,
og kanna þú fólkid, ad eg fái ad vita tølu
fólksins. 3. Og Jóab svaradi máli Konúngs:
Drottinn þinn Gud, bæti vid fólkid, svo margt
sem þad er, hundradfalt fleiru, svo augu míns
herra Konúngsins sjái þad; en hvarfyrir vill
minn herra Konúngurinn gjøra þetta? 4. En
Kóngsins ord stód fast, móti Jóab og herfor-
íngjunum; og Jóab og herforíngjarnir geingu
burt frá Konúnginum, til ad kanna Jsraelsfólk.
5. Og þeir fóru yfir Jórdan, og settu tjøld
sín hjá Aroer, hægramegin stadarins, sem ligg-
ur midt í Gadsdal a), og í stefnu til Jaeser.
6. Og þeir komu í Gílead og í héradid Tatim
til Hadsí, og komu til Dan-Jaan, og í grend
vid Sídon; 7. og komu til borgarinnar Týrus,
og til allra stada Hevíta og Kananíta, og héldu
svo sudurávid frá Júda til Berseba. 8. Og
svo fóru þeir um allt landid og komu aptur
til Jerúsalem ad lidnum níu mánudum og tutt-
ugu døgum. 9. Þá fékk Jóab Kónginum tølu
þess kannada fólks, og í Jsrael voru áttasinn-
um hundrad þúsund vopnfærra manna, og Júda-
menn voru 5 sinnum hundrad þúsundir manns.
10. Og Davíd ávítadi sitt eigid hjarta þá
hann hafdi talid fólkid; og Davíd sagdi vid Drott-
inn: mikil er sú synd sem eg hefi drýgt, ad eg gjørdi
slíkt! og nú Drottinn! tak í burt yfirsjón þíns
þénara; því eg hefi breytt mjøg heimskulega.
11. En sem Davíd stód upp um morguninn
kom ord Drottins til Gad Spámanns sem var
Davíds Sjáandi b) og mælti: 12. far þú og
tala vid Davíd: svo segir Drottinn: þrennt
legg eg fyrir þig, kjós þú eitt af því, ad eg
láti þad yfir þig koma. 13. Og svo kom Gad
til Davíds og sagdi honum frá og mælti til
hans: eiga 7 húngurs ár ad koma í þitt land,
eda þad, ad þú flýir í þrjá mánudi fyrir þín-
um óvinum, og ad þeir elti þig, eda drep-
sótt sé þrjá daga í þínu landi? hugsadu þig
nú um, og sjá til, hvada svar eg á ad færa
þeim sem mig sendi. 14. Þá sagdi Davíd vid
Gad: mjøg þreyngumst eg! látum oss samt falla
fyrir Drottins hendi, því mikil er hans misk-
un, en fyrir manna hendi vil eg ekki falla.
15. Svo sendi Drottinn drepsótt yfir Jsra-
el, frá morgni og til þess ákvedna tíma, og af
fólkinu dóu frá Dan og til Berseba 70 þúsund-
ir. 16. Og Engillinn útrétti sína hønd yfir
Jerúsalem, til ad vinna henni tjón, þá ydrad-

V. 1. Sbr. 1 Kron. 21, 1. V. 5. *a.* Devt. 2, 36. V. 11. *b.* 1 Sam. 22, 5. V. 13. Sbr. 1 Kron. 21, 12, V. 14. Sbr. 1 Kron. 21, 13.

ist Drottinn þess illa, og hann sagdi vid Eing-
ilinn sem eyddi fólkinu, nú er nóg! tak þú nú ad
þér høndina! en Eingill Drottins var þá hjá
Arafnar Jebúsitans hlødu (láfagardi). 17.
Og Davíd sagdi til Drottins er hann sá Eing-
ilinn, sem feldi fólkid, og mælti: sjá! eg hefi
syndgad, og eg hefi brotid, en þessir saudir,
hvad hafa þeir gjørt? þín hønd komi yfir mig
og yfir míns fødurs hús!

18. Og á þeim sama degi kom Gud til Da-
víds og mælti vid hann: far þú nú, og set
Drottni altari í hlødu (láfagardi) Arafnas,
Jebúsíta. 19. Og Davíd fór eptir ordi Gads, eins
og Drottinn hafdi bodid. 20. Og Arafna leit
til og sá Kónginn og hans þjóna koma, og
hann laut Konúnginum med andlitinu til jard-
ar. 21. Og Arafna mælti: hvørs vegna kém-
ur minn herra Kóngurinn til síns þjóns? Og
Davíd sagdi: eg kém til ad kaupa þína hlødu
(þinn láfagard) svo eg byggi Drottni þar alt-
ari, og ad plágunni verdi létt af fólkinu. 22.
Og Arafna sagdi til Davíds: minn herra Kon-
úngurinn taki hvad sem hann vill, og fórnfæri!
Sjá! þar er nautid til brennifórnar, og þar
kérran og nautsins reidi til (eldi) vidar. 23.
Þad allt géfur Arafna, Konúngur (minn)!
Konúnginum. Og Arafna mælti vid Konúng-
inn: Drottinn þinn Gud taki þér nú nádar-
samlega! 24. Og Kóngurinn sagdi vid Arafna:
nei, eg vil heldur kaupa af þér þetta fyrir sitt
verd, og vil ekki færa brennifórn Drottni Gudi
mínum mér útlátalaust. Og svo keypti Da-
víd hløduna (láfagardinn) og nautid fyrir 50
sikla silfurs. 25. Þar bygdi Davíd Drottni
altari og offradi brennifórn og þakkarfórn,
og Drottinn sættist vid landid, og plágunni
var létt af Ísraels fólki.

# Fyrri Kónganna Bók.

## 1. Kapituli.

Davíds ellilasleiki. Adonía gjørir sig ad Kóngi. Davíd lætur smyrja Salómon til Kónúngs.

1. En Davíd Konúngur var ordinn gam-
all, hníginn ad aldri, og þó hann væri þakinn
føtum, gat honum ekki hitnad. 2. Þá søgdu
hans þjónar vid hann: menn leiti mínum herra
Konúnginum ad stúlku, mey einhvørri, ad hún
sé hjá Kónginum og veiti honum adhjúkrun
og sofi í hans fadmi (ørmum), svo ad mínum
herra Konúnginum hitni. 3. Og menn leit-
udu ad frídri stúlku í øllu Ísraels landi, og
fundu Abísag frá Sunem a), og fóru med hana
til Konúngs. 4. En stúlkan var harla fríd og
tók ad sér ad hjúkra Kónginum og þjónadi hon-
um. En Kóngur kéndi hennar ekki b).

5. Og Adonía, Hagitsson c), tók sig til
og mælti: eg vil verda Kóngur! og hann út-
vegadi sér vagna og riddara, og 50 menn sem
fyrir honum runnu d). 6. Og fadir hans
hafdi aldrei á æfi sinni hryggt hann, ekki svo
mikid hann hefdi sagt: því gjørir þú þetta?
hann var líka mikid frídur sýnum og módir
hans hafdi fædt hann næst eptir Absalon. 7.

V. 18—25. Sbr. 1 Kron. 21, 18—30. V. 3. *a.* Kap. 2, 17. V. 4. *b.* Gen. 4, 1. V. 5. *c.* 2 Sam. 3, 4. *d.* 2 Sam. 15, 1.

Og hann kom ad máli vid Jóab, Seruja son,
og prestinn Abíatar, og þeir hjálpudu Adonía.
8. En presturinn Sadok og Benaja sonur
Jójada, og spámadurinn Natan, og Simei og
Rei og Davíds kappar voru ekki med Adon=
ia. 9. Og Adonia slátradi saudum og naut=
um, og alikálfum hjá steininum Sohelet, sem
er hjá brunninum Rógel, og baud øllum sín=
um brædrum, Kóngs sonunum, og øllum Júda
mønnum, þénurum Kóngsins. 10. En Natan
spámanni og Benaja, og køppunum og bródur
sínum Salómon, baud hann ekki.
11. Þá taladi Natan vid Batseba módur
Salómons, og mælti: hefir þú ekki heyrt ad
Adonia Hagitsson er ordinn Kóngur? Og Da=
víd vor herra veit þad ekki. 12. Og kom þú
nú, eg skal kénna þér rád, ad þú bjargir þinni
sál, og sálu Salómons sonar þíns. 13. Far
þú nú og gakk inn til Davíds Kóngs, og segdu
vid hann: hefir þú ekki, minn herra Konúngur,
svarid þinni ambátt og sagt: Salómon sonur
þinn skal verda Konúngur eptir mig, og hann
skal sitja í mínu hásæti? og hvørnig er þá
Adonía ordinn Konúngur? 14. Og sjá! med=
an þú ert ad tala um þetta vid Kónginn, svo
skal eg koma og enda þitt tal á eptir þig. 15.
Svo gékk Batseba til Kóngsins inní herbergin;
en Konúngurinn var mikid gamall, og Abísag
af Sunem þjónadi Kónginum. 16. Og Bat=
seba hneigdi sig og laut Kónginum og Kon=
úngur mælti: hvad er þitt erindi a)? 17. Og
hún sagdi vid hann: þú hefir, herra minn,
svarid þinni ambátt vid Drottinn þinn Gud:
Salómon sonur þinn skal verda Kóngur eptir
mig, og hann skal sitja í mínu hásæti; 18.
og sjá! nú er Adonía ordinn Kóngur og minn
herra Konúngur, þú veitst þad ekki! 19. Hann
hefir slátrad fjølda af nautum, alikálfum og
saudum og bodid øllum Kóngssonunum, prest=
inum Abíatar og hershøfdíngjanum Jóab. En
Salómoni, þínum þénara, baud hann ekki 20.
Og allur Israel horfir sínum augum til þín,
minn herra Konúngur! ad þú látir menn vita,
hvør sitja skuli í hásæti míns herra Konúngs=
ins eptir hann. 21. Og þad mun fara svo,
þegar minn herra Konúngur er lagstur hjá sín=
um fedrum, ad eg og sonur minn Salómon,
vid munum gjalda (lída).
22. Og sjá! medan hún enn var ad tala
vid Kónginn kom spámadurinn Natan. 23.
Og menn søgdu Kóngi frá og mæltu: sjá! Nat=
an spámadur er hér; og hann gékk inn fyrir
Konúnginn og beigdi sitt andlit til jardar fyrir
Konúnginum. 24. Og Natan mælti: minn
herra Konúngur! þú hefir líklega sagt: Adonía
skal vera Konúngur eptir mig, og hann skal sitja
í mínu hásæti? 25. Því er hann hédan farinn
í dag, og hefir slátrad fjølda af nautum, ali=
kálfum og saudum, og bodid øllum Kóngsins
sonum og herforíngjunum og prestinum Abíat=
ar; og sjá! þeir eta og drekka med honum,
og segja: Konúngur Adonía lifi! 26. En mér
þínum þjón og prestinum Sadok og Benaja
syni Jójada, og Salómoni þínum þénara hef=
ir hann ekki bodid. 27. Nú er spursmál hvørt
þetta er skéd ad tilhlutan míns herra Kon=
úngsins, því þú hefir ekki kunngjørt þínum
þjónum, hvør sitja skuli í hásæti míns herra
Konúngsins eptir hann.
28. Þá svaradi Davíd Konúngur og mælti:
kallid á Batseba, og hún kom inn fyrir Konúng=
inn og gékk fyrir Konúnginn. 29. Og Kóng=
urinn sór og mælti: svo sannarlega sem Drott=
inn lifir, sem hefir frelsad mína sál úr øllum
þrautum! 30. Eins og eg hefi svarid þér vid
Drottinn Israels Gud og sagt: Salómon þinn
son skal Kóngur vera eptir mig, og hann skal
sitja í mínu hásæti í minn stad, svo vil eg gjøra

V. 16. a. 2 Sam. 14, 5. V. 19. Sbr. v. 9. 10.

á þessum degi. 31. Þá hneigdi Batseba sitt andlit til jardar, og laut Konúnginum og mælti: minn herra Konúngurinn lifi eilíflega! 32. Og Konúngurinn Davíd mælti: kallid fyrir mig á prestinn Sadok, Spámanninn Natan og Benaja son Jojada! og þeir komu inn fyrir Konúnginn. 33. Og Konúngur sagdi vid þá: takid med ydur þjóna ydvars herra, og setjid Salómon minn son á minn múlasna og farid med hann til Gíhon. 34. Þar smyrji presturinn Sadok og spámadurinn Natan hann til Kóngs yfir Israel, og blásid í básúnuna og segid: Konúngur Salómon lifi! 35. Komid svo med honum híngad, og hann komi og setjist í mitt hásæti, og hann skal vera Konúngur í minn stad, og hann set eg høfdíngja yfir Israel og Júda. 36. Þá svaradi Benaja sonur Jojada Konúnginum og mælti: veri þad svo! þad segi Drottinn, Gud míns herra Konúngsins Davíds! 37. Eins og Drottinn var med mínum herra Konúnginum, svo sé hann med Salómoni, og lyfti hans hásæti upp yfir míns herra, Konúngsins Davíds!

38. Sídan fóru þeir presturinn Sadok, spámadurinn Natan og Benaja sonur Jójada og hyrdin og settu Salómon uppá Davíds Kóngs múlasna, og fóru med hann til Gíhon. 39. Og presturinn Sadok tók vidsmjørs hornid úr tjaldbúdinni, og smurdi Salómon, og þeir blésu í básúnuna, og allt fólkid sagdi: Konúngur Salómon lifi! 40. Og allt fólkid fór med honum, og lék á hljódfæri, og þeir voru hressir med miklum føgnudi, svo ad jørdin skalf af þeirra háreysti.

41. Og Adonía heyrdi þad, og allir þeir sem hann hafdi í bodi sínu, (en þeir høfdu þá lokid máltíd). Og Jóab heyrdi hljóm básúnunnar, og mælti: hvørju gégnir þetta hróp og háreysti í borginni? 42. En sem hann var enn um þetta ad tala, sjá! þá kom Jónatan sonur Abíatars prests; og Adonía mælti: vertu velkominn! þú ert vænn madur og munt koma med gód tídindi. 43. En Jónatan svaradi og mælti vid Adonía: nei, þad er ødru nær! vor herra Konúngurinn Davíd hefir gjørt Salómon ad Kóngi. 44. Og Konúngurinn hefir sendt med honum prestinn Sadok, spámanninn Natan og Benaja són Jojada, og hyrdina, og þeir hafa sett hann uppá Kóngsins múlasna. 45. Og þeir, presturinn Sadok og Spámadurinn Natan hafa smurt hann til Kóngs í Gíhon, og eru þadan farnir med føgnudi, og stadurinn allur er uppvægur. Þad er nú sá hávadi sem þér hafid heyrt. 46. Líka hefir Salómon setst í Kóngs hásætid. 47. Sømuleidis hafa þénarar Konúngsins geingid til ad óska til lukku vorum herra Davíd Konúngi og hafa sagt: þinn Gud gjøri nafn Salómons stærra enn þitt nafn, og hefji hans hásæti yfir þitt hásæti, og Kóngurinn hefir bedist fyrir í sæng sinni. 48. Konúngurinn hefir og sagt þetta: lofadur veri Drottinn Israels Gud sem nú í dag lét einn setjast í mitt hásæti, ad mín augu sæu þad! 49. Þá skelkudust og stódu upp allir sem høfdu verid í heimbodi Adonía, og hvør fór sína leid. 50. En Adonía hræddist Salómon, tók sig til og gékk burt og greip um altaris hornin. 51. Þad var sagt Salómoni med þessum ordum: sjá! Adonía er hræddur vid Salómon, og sjá! hann hefir tekid um altaris hornin, og segir: Salómon Konúngur sverji mér í dag, ad hann skuli ekki deyda sinn þjón med sverdi. 52. Þá mælti Salómon: verdi hann vænn madur, skal ekki eitt af hans hárum falla á jørdina; en verdi hann fundinn ad illu, svo kostar þad hans líf. 53. Svo sendi Salómon Konúngur, og þeir tóku hann frá altarinu; og hann kom og laut Konúngi Salómon. Og Salómon sagdi til hans: far þú heim í þitt hús.

## 2. Kapituli.

Davíds seinasta rádstafan og andlát. Salómons réttvísi.

1. Og sem Davíds dagar nálgudust daud-
ann, baud hann Salómoni syni sínum og mælti:
2. Eg geing veg allrar veraldar a), vert þú nú
fastur fyrir, og vertu madur! 3. Gjættu þess
er gjæta ber vid Drottinn þinn Gud, ad þú
gángir á hans vegum, og haldir hans skikkan-
ir og hans bodord, og hans réttindi, og hans
tilskipanir einsog skrifad er í Móses løgum, svo
þú sért lukkulegur í øllu sem þú gjørir, og
hvørt sem þú snýr þér; 4. Svo ad Drottinn
efni sitt ord sem hann hefir talad til mín, þá
hann mælti: ef ad synir þínir gá ad sínum
vegum, ad þeir gángi dyggilega fyrir mér, og
af øllu hjarta og af allri øndu, svo, sagdi hann,
skal þig ekki vanta mann í Israels hásæti. 5.
Þú veitst líka hvad Jóab hefir gjørt mér, son-
ur Serúja, hvad hann gjørdi þeim tveimur Is-
raels hershøfdíngjum, Abner syni Ners b), og
Amasa syni Jeters c), sem hann myrdti og út-
hellti strídsblódi í fridi, og bar strídsblód á
sínu belti, sem var um hans lendar, og á sín-
um skóm, sem voru á hans fótum. 6. Svo
gjør eptir þínum vísdómi, og lát ekki hans
gráu hár koma med fridi í grøfina. 7. En
sonum Barsillai, Gileadíta skaltu vera nádug-
ur, þeir skulu vera þínir møtunautar (eta vid
þitt bord), því svo voru þeir mér fylgisamir,
þá eg flúdi fyrir bródur þínum Absalon. 8.
Og sjá! hjá þér er Símei, sonur Gera Ben-
jamínítans, frá Bahúrim; þessi sami bad mér
ills med gífurlegum formælíngum, þá eg fór
til Mahanaim; en hann kom á móti mér til
Jórdan, og eg sór honum vid Drottinn og
mælti: eg skal ekki deyda þig med sverdi! 9.
en láttu hann nú ekki sleppa undan straffi, því
vitur madur ert þú, og veitst hvad þú átt vid
hann ad gjøra, og láttu hans gráu hár koma
med blódi í grøfina. 10. Og svo sofnadi Da-
víd hjá sínum fedrum, og var jardadur í Da-
vídsborg. 11. En sá tími, sem Davíd ríkti
yfir Israel, var 40 ár. Í Hebron ríkti hann
7 ár, og í Jerúsalem ríkti hann 33 ár d). 12.
Og Salómon sat í hásæti fødur síns Davíds,
og hans Kóngsríki vard mjøg stadfast.

13. Og Adonía, sonur Hagítar, kom til Bat-
seba módur Salómons, og hún mælti: bodar
þín koma frid? og hann svaradi: (já) frid!
14. Og hann sagdi: eg hefi eitt ord vid þig
ad tala. Og hún mælti: tala þú! 15. Og
hann sagdi: þú veitst ad Konúngs ríkid var
mitt, og allur Israel hafdi auga á mér, ad
eg skyldi vera Kóngur; en nú hefir ríkid billt
sér, og er ordid bródur míns, því Drottinn
lét þad verda hans. 16. Og nú bid eg þig
einnrar bónar, synja þú mér ekki um hana!
Og hún sagdi vid hann: tala þú! 17. Og
hann mælti: tala þú vid Kónginn Salómon,
því hann mun ei synja þér, ad hann géfi mér
fyrir konu, Abísag af Sunem. 18. Og Bat-
seba sagdi: gott og vel! eg skal þín vegna
tala vid Kónginn.

19. Þá gékk Batseba inn fyrir Kóng Sa-
lómon til ad tala vid hann, vegna Adonía.
Og Konúngur reis á móti henni og laut
henni og setti sig í hásætid, og menn settu þar
stól, handa módur Konúngsins, og hún sat hon-
um til hægri hlidar. 20. Og hún tók svo til
orda: eg bid þig lítillar bónar, synja þú mér
ekki! Og Konúngur sagdi til hennar: bid þú,
módir mín! eg mun ekki synja þér. 21. Og

---

V. 2. *a.* Jós. 23, 14. V. 3. Sbr. D:vt. 17, 18. fl. Jós. 1, 7. V. 5. *b.* 2 Sam. 2, 27. *c.* 2 Sam. 20, 10. V. 7. Sbr. 2 Sam. 17, 27. 19, 31. 32. V. 8. Sbr. 2 Sam. 16, 5, 19, 16. 23. V. 11. Sbr. 2 Sam, 5, 4. 5. 1 Kron. 29, 26. 27.

hún mælti: Abísag af Sunem verdi géfin Adonia bródur þínum fyrir konu.

22. Þa svaradi Salómon Konúngur og mælti vid módur sína: því bidur þú um Abísag af Sunem fyrir Adonia? bid þú um Kóngsríkid handa honum, því hann er eldri bródir, og handa Abíatar presti, og Jóab Serujasyni. 23. Og Salómon sór vid Drottinn og mælti: Gud gjøri mér þad og enn fremur a)! þetta ord Adonia skal kosta hans líf! 24. Og nú svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem mig hefir stadfest, og sett mig í hásæti Davíds fødur míns og gjørt mér hús, eins og hann hafdi heitid, jafnvel í dag skal Adonia verda líflátinn. 25. Og Salómon Kóngur sendi Benaja son Jójada, hann vann á honum svo ad hann dó.

26. Og Konúngurinn sagdi vid Abíatar prest: far þú til Anatot þar sem þú átt akrana, því daudans madur ert þú; en á þessum degi vil eg ekki drepa þig, því þú barst Guds Drottins ørk fyrir Davíd fødur mínum og þú þoldir íllt allan þann tíma sem fadir minn þoldi íllt. 27. Þannig rak Salómon Abíatar burt, svo hann var ei leingur prestur Drottins, til þess ad Drottins ord skyldi rætast, sem hann hafdi talad, vidvíkjandi Elí húsi í Síló. (1 Sam. 2, 31. 32).

28. Og þetta spurdi Jóab (en Jóab hafdi haldid med Adonia, en Absalon hafdi hann ekki adhyllst). Þá flúdi Jóab í Drottins tjaldbúd, og greip um altarishornin. 29. Og Konúngi Salómon var þad sagt, ad Jóab væri flúinn í Drottins tjaldbúd, og sjá! hann er vid altarid. Þá sendi Salómon Benaja son Jójada og mælti: far þú og vinn á honum. 30. Svo kom Benaja í Drottins tjaldbúd og sagdi vid hann ꝛ: Jóab: svo segir Kóngurinn: gakk þú út hédan! og hann svaradi: nei! hér skal eg heldur deya. Og Benaja lét Konúng vita þad, og mælti: svo taladi Jóab, og svo svaradi hann mér. 31. Þá sagdi Konúngurinn vid hann: gjør þú sem hann sagdi, og vinn þú á honum, og graf þú hann, og kom þú af mér og míns fødurs húsi, því blódi sem Jóab án saka hefir úthellt. 32. Og Drottinn láti hans blód koma yfir hans høfud, þared hann hefir drepid tvo menn, sem voru réttvísari og betri enn hann, og myrdt þá med sverdi, án þess fadir minn Davíd vissi, Abner son Ners, hershøfdíngja Ísraels, og Amasa, son Jeters, Júda hershøfdíngja. 33. Þeirra blód komi yfir Jóabs høfud og í koll hans nidjum ad eilífu, en Davíd og hans nidjar og hans hús og hans hásæti hafi frid af Drottni eilíflega! 34. Svo gékk Benaja sonur Jójada burt, og vann á honum og deyddi hann, og hann var grafinn í sínu húsi í eydimørkinni. 35. Og Konúngurinn setti Benaja son Jójada í hans stad yfir herinn b), og Sadok prest c) setti Konúngur í stad Abíatars.

36. Og Konúngurinn sendi og kalladi Símeí og sagdi til hans: bygg þú þér hús í Jerúsalem og bú þú þar, og far þú ekki þadan hvørki í þessa átt né hina. 37. Og hvørn þann dag sem þú fer þadan, og yfir lækinn Kidron, svo skalt þú vita, ad þú hlýtur ad deya; þitt blód komi yfir þitt høfud! 38. Og Símeí svaradi Konúnginum: gott og vel! eins og minn herra Konúngurinn hefir talad, svo mun hans þjón gjøra. Og svo bjó Símeí leingi í Jerúsalem.

39. En ad þrem árum lidnum vard sá atburdur, ad tveir Simei þrælar struku til Akis, sonar Makas Kóngs í Gat, og menn søgdu Simei: sjá! þínir þrælar eru í Gat. 40. Þá tók Simei sig til, og sødladi sinn asna, og fór til Gat til Akis, til ad sækja sína þræla; og Simei fór og kom med þrælana frá Gat. 41. Þad var Salómoni sagt, ad Simei hefdi farid

V. 23. *a.* 1. Sam. 3, 17. 14, 44. V. 35. *b.* Kap. 4, 4. *c.* 1 Sam. 2, 35. 1 Kron. 29, 22.

frá Jerúsalem til Gat og væri aptur kominn. 42. Þá sendi Konúngur og kalladi Simei og sagdi vid hann: hefi eg ekki svært þig vid Drottinn, og lagt ríkt á vid þig og sagt: á hvørjum degi sem þú fer burt í þessa eda hina áttina, svo skalt þú vita ad þú hlýtur ad deya? Og þú sagdir vid mig: gott og vel! eg hefi þad heyrt. 43. En hvørs vegna hefir þú ekki haldid Drottins eid, og þad bodord sem eg baud þér? 44. Og Konúngurinn mælti vid Simei: þú veitst allt þad illa, sem þitt hjarta er sér medvitandi, þad sem þú gjørdir Davíd fødur mínum, og nú lætur Drottinn þína vondsku þér í koll koma. a). 45. En Salómon Kóngur mun blessadur vera, og Davíds hásæti af Drottni stadfestast ad eilífu. 46. Og Konúngurinn baud Benaja syni Jojada, og hann fór og vann á honum (Simei) svo hann dó. Og Kóngsríkid festist í Salómons hendi.

## 3. Kapítuli.

Salómons gifting. Draumur. Dómspeki.

1. Og Salómon mægdist vid Faraó Kóng í Egyptalandi, og hann tók dóttur Faraós og flutti hana til Davídsborgar, þángad til hann hafdi fullkomnad bygginguna síns húss og Drottins húss og veggsins allt um kríng Jerúsalem. 2. En fólkid færdi fórnir á hædunum, því allt til þess tíma var Drottins nafni ekkért hús byggt. 3. Og Salómon elskadi Drottinn, svo ad hann gékk eptir reglum síns fødur Davíds; einasta færdi hann fórnir, og brendi reykelsi, á hædunum. 4. Og Kóngurinn fór til Gibeon til þess ad fórnfæra þar, því þad var stærsta hædin. Þúsund brennifórnum offradi Salómon á því sama altari. 5. Í Gibeon birtist Drottinn Salómoni í draumi um nóttina b), og Gud sagdi: bid þú, (einhvørs) hvad skal eg géfa þér? 6. Og Salómon sagdi: þú audsýndir þínum þjón Davíd fødur mínum mikla nád, þared hann gékk fyrir þér í trúskap, réttvísi og hjartans einlægni, og þú efndir vid hann þitt nádar heit, og gafst honum son, sem nú situr í hásætinu c), svosem á þessum tíma (skéd er). 7. Og nú, Drottinn minn Gud! þú hefir gjørt þinn þjón ad Kóngi í stad fødur míns Davíds, og eg er enn únglingur, og veit hvørki minn útgáng né inngáng. 8. Og þinn þjón er midt á medal þíns fólks, sem þú hefir útvalid, svo mikils fólks, sem hvørki verdur talid né reiknad fyrir fjølda sakir; 9. géf því þínum þjón skynugt hjarta til ad dæma þitt fólk, og til ad adgreina gott frá illu; því hvør gjæti annars dæmt þetta þitt marga fólk. 10. Og Drottni líkadi vel Salómons tal, ad hann bad um þetta. 11. Og Gud sagdi vid hann: søkum þess þú badst um þetta, og badst ekki um lánga lífdaga handa þér, né audlegd, og ekki heldur um líf þinna óvina, heldur badst um skilníng, svo þú hefdir vit á ad dæma; 12. sjá! svo veiti eg þér þad sem þú badst um; sjá! eg géf þér hyggid og skilníngsfullt hjarta, svo þinn líki hefir ei verid fyrir þig, og þinn líki skal ekki koma eptir þig. 13. Og líka géf eg þér þad sem þú badst ekki um, bædi audlegd og heidur, ad þinn líki sé ekki medal Kónganna alla þína daga. 14. Og ef þú geingur á mínum vegum svoad þú géfur gaum mínum setníngum og bodordum, einsog Davíd fadir þinn gékk á þeim, svo skal eg leingja þína daga d). 15. Þá vaknadi Salómon, og sjá! þad var draumur. Og hann kom til Jerúsalem og gékk fyrir Drottins sáttmáls ørk, og frambar brennifórn og þakkarfórn og gjørdi øllum þénurum sínum mikid heimbod.

16. Um þad leiti komu tvær lausakonur til

V. 44. *a*) Sálm. 54, 7. 62, 13. V. 5. *b*. Kap. 9, 2. V. 6. *c*. Kap. 1, 48. V. 9. Sbr. 2 Kron. 1, 10. Spek. b. 6, 22. V. 14. *d*. Devt. 4, 40.

Kóngsins, og geingu fyrir hann. 17. Og önnur konan sagdi: æ! minn herra! eg og kona þessi, vid bjuggum í sama húsi, og eg ól barn í húsinu hjá henni. 18. En á þridja degi eptir ad eg hafdi fædt, ól þessi kona barn líka. Og vid vorum saman og eingin annar hjá okkur í húsinu, vid bádar vorum ad eins í húsinu. 19. Þá dó sonur þessarar konu um nóttina, af því hún hafdi lagst á hann. 20. Og hún stód upp um nóttina, og tók minn son frá minni hlid, medan þín ambátt svaf, og lagdi hann sér í fadm, og sinn dauda son lagdi hún mér á arm. 21. Og þá eg stód upp um morgunin til ad géfa syni mínum ad sjúga, sjá! þá var hann daudur; og eg þyrdti hann fyrir mér um morgunin, og sjá! þad var ekki minn son, sem eg hafdi fædt. 22. Og hin önnur kona mælti: nei! þad er heldur minn son sem lifir, og þinn sonur er daudur. Og hin sagdi: nei! heldur er þinn sonur sá daudi, og minn sonur er sá sem lifir, og svona töludu þær frammi fyrir Konúnginum. 23. Þá mælti Konúngurinn: þessi segir: þad er minn sonur sem lifir og þinn er daudur. Og hin segir: nei! heldur er þinn sonur daudur, og minn sonur er sá sem lifir. 24. Og Kóngurinn mælti: færid mér sverd! og þeir færdu Konúnginum sverd. 25. Og Kóngur mælti: höggid þad barnid sem lifir í tvo hluti, og fáid sinn helmínginn hvörri! 26. Þá sagdi sú konan sem átti þad lifandi barn vid Konúnginn (því hennar vidkvæmni til sonarins vaknadi a): æ! minn herra! géfid henni barnid sem lifir, en deydid þad ekki. Og hin sagdi: þad sé hvörki mitt né þitt, höggid þad í sundur. 27. Þá svaradi Kóngur og mælti: fáid hinni þad lifandi barn, og deydid þad ekki! hún er þess módir. 28. Og allur Ísrael heyrdi dóminn, sem Konúngur hafdi dæmt; og þeir óttudust Kónginn; því þeir sáu ad Guds speki var í honum, til ad leggja á dóma.

## 4. Kapítuli.

*Salómons embættismenn, vegsemd og vitska.*

1. Og svo var Konúngurinn Salómon, Konúngur yfir öllum Ísrael. 2. En þetta eru þeir höfdíngjar sem hann hafdi: Asaria sonur Sadoks prests, 3. Elihoref og Ahija Sisas synir, voru skrifarar; Jósafat sonur Ahiluds var Sagnameistari. 4. Og Benaja sonur Jójada var yfir hernum, og Sadok og Abíatar voru prestar. 5. Og Asaría sonur Natans var yfir embættismönnunum, og Sabud, sonur Natans, prestur, vinur Kóngsins; 6. Og Ahísar var yfir (Kóngs) húsinu og Adoníram Abdas son, rentumeistari.

7. Og Salómon hafdi 12 lénsmenn yfir öllum Ísrael, og þeir forsorgudu Kónginn og hans hús, hvör þeirra átti ad forsorga (hann) einn mánud í árinu. 8. En þetta eru þeirra nöfn: sonur Húrs í Efraims fjöllum. 9. Sonur Dekers í Makas og Saalbim og Bet-Semes, og Elon og Bet-Hanan; 10. Sonur Heseds í Arubot, honum tilheyrdi Sokó og allt héradid Hefer; 11. Sonur Abínadabs hafdi allt héradid Dór (Tafit dóttir Salómons var kona hans). 12. Baena, sonur Ahiluds í Taenak og Megiddó og öllu Bet-Sean b) sem liggur hjá Sartan, fyrir nedan Jesreel; frá Bet-Sean til Abel-Mehola, allt til Jakmeam hinumegin. 13. Sonur Gebers var í Ramot í Gílead, honum tilheyrdu þorp Jairs, sonar Manassis, í Gílead, og spildan Argob í Basan, sextíu stórir stadir med múrveggjum og slagbröndum af eiri. 14. Ahinadab, sonur Iddós, í Mahanaim c). 15. Ahimas í Naftali (hann tók líka Basmat, dóttur Salómons, sér fyrir konu). 16. Baena, son-

V. 26. *a.* Gen. 43, 29. Esa. 49, 15. V. 12. *b.* Jós. 17, 11. V. 13. 1 Kron. 2, 23. V. 14. *c.* Gen. 32, 2.

ur Husaí í Aser og í Alot; 17. Jósafat sonur
Farus í Issaskar. 18. Símei sonur Elas í
Benjamín. 19. Geber sonur Uri í Gílead í
landi Síhons Amoríta Kóngs, og Ogs Kóngs-
ins í Basan; einn var lénsmadur í því landi.
20. Og Júda- og Israels menn voru margir
ad fjølda sem sandur í sjó a). Þeir átu og
drukku og voru gladir.

21. Og Salómon drottnadi yfir øllum
Kóngsríkjum frá ánni b), (allt til) Filistea
lands, og allt til Egyptalands landamerkja,
þeir færdu honum gáfur og voru Salómoni
undirgéfnir alla hans lífdaga. 22. Og Saló-
mon hafdi daglega til matar 30 kor (mæl-
ira c) hveitimjøls, og 60 mælira annars
mjøls, 23. og 10 alda uxa og 20 haggeingna
uxa, og hundrad saudi, fyrir utan hyrti, rádýr
og steingeitur og alda fugla; 24. því hann
hafdi allt landid undir, þessu meigin árinnar,
frá Tiffa til Gasa, vald yfir øllum Kóngum
þessumeigin árinnar, og hann hafdi frid á allar
hlidar allt um kríng. 25. Og Júda og Isra-
el bjó óhulltur, hvør undir sínu víntré og undir
sínu fíkjutré d) frá Dan til Bersaba, medan
Salómon lifdi. 26. Og Salómon hafdi 40
þúsund vagnhesta og 12 þúsund rídandi menn.
27. Og lénsmennirnir létu til vistir handa
Salómon og øllum sem vid hans bord sátu,
hvør í sínum mánudi; þeir létu ekkért skorta.
28. Og bygg og hei fyrir hestana og úlfaldana
fluttu þeir þángad sem hann var, hvør eptir
sinni rød. 29. Og Gud gaf Salómoni, speki
og skilníng mjøg mikinn, og margfalda þekk-
íngu, eins og sandur er margur á sjáfarstrønd.
30. Og Salómons speki var meiri enn speki
allra austurlanda sona, og (meiri enn) øll E-
gyptalands speki. 31. Og hann var øllum
mønnum vitrari, (hann var) vitrari enn Et-
an e), Esrahíti, og Heman og Kalkol og
Darda, synir Mahols; og hans nafn var víd-
frægt medal allra þjóda allt um kríng. 32.
Og Salómon taladi 3 þúsund ordskvidu, og
hans vísur voru þúsund og fimm. 33. Og
hann taladi um trén, frá Sedrustrénu á Líb-
anon, til Ysópsins sem sprettur á vegg, og hann
taladi um fénadinn og fuglana og orminn og
fiskana. 34. Og menn komu af øllum þjódum
ad heyra Salómons speki, og af øllum Kóng-
um jardarinnar, sem heyrdu hans speki gétid.

## 5. Kapítuli.

*Undirbúníngur Musterisbyggíngarinnar.*

1. Og Híram Kóngur í Týrus sendi sína
þjóna til Salómons, því hann hafdi frétt, ad
þeir hefdu smurt hann til Kóngs í stad fødur
hans; því Híram hafdi ætíd verid vinur Da-
víds. 2. Og Salómon sendi aptur til Hírams
og mælti: 3. Þú veitst, ad Davíd fadir minn
mátti ekki byggja hús nafni Drottins síns
Guds, vegna þess ófridar sem hann átti í allt
um kríng, þángad til Drottinn lagdi hans ó-
vini undir sóla hans fóta. 4. Og nú hefir
Drottinn minn Gud géfid mér frid allt um
kríng; einginn mótstødumadur er, og eingin ó-
høpp f). 5. Og sjá! eg hefi nú hugsad ad
byggja hús nafni Drottins míns Guds, eins
og Drottinn hefir talad og sagt vid Davíd
fødur minn: sonur þinn sem eg vil setja í
hásætid, í þinn stad, sá hinn sami skal byggja
hús mínu nafni g). 6. Bjód þú nú ad menn
høggi mér Sedrusvid á Líbanon, og mínir
þjónar skulu vera med þínum þjónum, og eg
vil gjalda þér kaup fyrir þína þjóna, eins og
þú segir, því þú veitst ad einginn madur

V. 20. *a.* Kap. 3, 8. Gen. 13, 16. Núm. 23, 10. V. 21. *b.* ɔ: Frat Sbr. v. 24. Gen. 15, 18. V. 22 *c.* Ezech. 45, 14. adrir: tunnur. V. 25. *d.* 2 Kóng. 18, 31. Sakk. 3, 10. V. 26. Sbr. 2 Kron. 9, 25. V. 31. *e.* 1 Kron. 2, 6. V. 4. *f.* Préd. 9, 11. V. 5. *g.* 2 Sam. 7, 13. 1 Kron. 22, 10.

vor á medal kann ad høggva tré, eins og þeir í Sídon.

7. En sem Híram heyrdi ord Salómons, vard hann mjøg gladur og mælti: lofadur veri Drottinn sem hefur géfid Davíd vitrann son yfir þetta mikla fólk! 8. Og Híram sendi til Salómons og mælti: eg hefi heyrt þad sem þú mælist til af mér; eg skal gjøra allt sem þú villt vidvíkjandi Sedrusvidnum og furuvidnum. 9. Mínir þjónar skulu flytja vidinn frá Líbanon til sjáfar, og eg skal láta setja hann í flota í sjónum og flytja allt til þess stadar sem þú tiltekur, og þar læt eg taka sundur flotan, en þú lætur sækja. En þú munt líka gjøra bón mína, ad géfa vistir mínu húsi. 10. Og svo gaf Híram Salómoni Sedrusvid og furuvid, alla hans ósk. 11. En Salómon gaf Híram 20 þúsund mælira a) (kor) hveitis, mat fyrir hans hús, og 20 mælira af steittu vidsmjøri. Þad gaf Salómon Híram árlega. 12. Og Drottinn gaf Salómoni speki, eins og hann hafdi heitid honum, og þar var fridur milli Hírams og Salómons, og þeir gjørdu sáttmála hvør vid annann. 13. Og Salómon Kóngur lagdi skyldu kvød á allan Ísrael, og þeir sem áttu ad gégna skyldu kvødinni voru 30 þúsundir; 14. og hann sendi þá til Líbanon, 10 þúsund í mánudi til skiptis; einn mánud voru þeir á Líbanon, og tvo mánudi heima hjá sér; en Adoníram var yfir því fólki. 15. Og Salómon hafdi 70 þúsund lestamenn, og 80 þúsund sem hjuggu á fjallinu (stein), 16. auk umsjónarmanna Salómons yfir verkinu, sem voru þrjú þúsund og þrjú hundrud; þeir voru yfir fólkinu sem verkid vann. 17. Og Kóngurinn baud ad þeir skyldu uppbrjóta stóra og kostulega steina, til ad byggja af grundvøll húsins, høggna steina. 18. Og byggíngarmenn Salómons, og byggíngarmenn Hírams, og Giblítarnir hjuggu þá, og undirbjuggu vidinn og steinana til húsins byggíngar.

## 6. Kapítuli.

Byggíng musterisins.

1. Og þad skédi, árid 4 hundrud og 80 eptir ad Ísraelsmenn fóru úr Egyptalandi, á fjórda ári ríkisstjórnar Salómons yfir Ísrael í mánudinum Siv, þad er sá annar mánudur, ad þá bygdi hann (Salómon) Drottni hús. 2. Og þad hús sem Salómon Kóngur bygdi Drottni var 60 álnir á leingd og 20 álnir á breidd og 30 álnir á hæd. 3. Og þar var forbyrgi fram af musteris húsinu, tuttugu álna lángt, eptir breidd húsins, og tíu álnir var þess breidd fyrir framan húsid. 4. Og hann gjørdi glugga á húsid med grindverki fyrir. 5. Og hann bygdi vid vegg húsins allt um kríng umgáng; vid veggi húsins allt um kríng, bædi musterisins og kórsins, og gjørdi stúkur allt um kríng. 6. Þad nedsta gángrúm var 5 álnir á vídd, þad í midid 6 álnir á breidd og þad efsta 7 álnir á breidd, því stalla hafdi hann gjørt ad utantil á húsinu allt um kríng, svo þessi kjæmu ei vid vegg húsins. 7. Og húsid þá þad var byggt, var þad byggt af ádur vel høggnum steini og menn heyrdu hvørki hamar né øxi, né nokkud járn tól, hjá húsinu, þá þad var byggt. 8. Dyr voru á hægri hlid húsins, í gégnum hlidarstúkuna sem var í midjunni, og um skrúfstiga gékk madur í midstúkuna, og úr henni í þá þridju. 9. Og svo bygdi hann húsid og lauk vid þad, og þakti húsid med bordum og plaunkum af Sedrusvidi. 10. Og hann bygdi gángrúm á øllu húsinu allt um kríng sem var 5 álna á hæd og festi vid húsid med Sedrusvid. 11. Og ord Drottins skédi til Salómons, og mælti: 12. áhrærandi þetta hús sem þú byggir — Efad þú geingur eptir

a) 2 Kron. 2, 10. u. Kap. 4, 22.

mínum setníngum, og gjørir mín réttindi og gjætir allra minna bodorda, ad þú gángir eptir þeim, svo skal eg halda vid þig ord mitt sem eg taladi vid Davíd fødur þinn a); 13. og eg vil búa medal Israelssona, og vil ekki yfirgéfa mitt fólk Israel.

14. Svo bygdi Salómon húsid og lauk vid þad. 15. Og hann klæddi veggina innan til med Sedrusvid; frá gólfi húsins uppad veggjum þaksins fódradi hann þad med vid, ad innanverdu, en gólf húsins var úr furuvidar bordum. 16. Af innri enda húsins afþiljadi hann med Sedrus vidar bordum 20 álnir, frá gólfi og til veggja, og þar fyrir innan byggdi hann sér húsrúm, sem skyldi vera þad allrahelgasta. 17. Og 40 álnir var húsid, þad er musterid fyrir framan. 18. Og Sedrusvidurinn í húsinu innantil var med skurdverki, hnøppum og útsprúngnum blómstrum allt af Sedrusvid, svo hvørgi sá í stein. 19. Og innra part húsins gjørdi hann svo, ad þángad mætti flytja løgmáls ørk Drottins. 20. Og hvad kórinn áhrærdi, þá var hann 20 álna lángur og 20 álna breidur og 20 álna hár, og hann fódradi hann med díru gulli, og fódradi altarid med Sedrusvid. 21. Og Salómon fódradi húsid innan med díru gulli, og lokadi kórnum med gilltum staungum og gillti hann. 22. Og allt húsid gillti hann, já, øldúngis allt húsid, og altarid, sem var fyrir framan kórinn, þad gullbjó hann.

23. Og hann gjørdi í kórnum tvo Kerúba b) úr villt vaxandi olíuvid, þeir voru 10 álnir á hæd. 24. Og 5 álna var annar vængurinn á þeim ødrum Kerúb, og 5 álna hinn vængurinn á þeim sama Kerúb, 10 álnir frá enda hans eina vængs, til endans á hinum hans væng. 25. Og 10 álnir hafdi og hinn annar Kerúb, bádir Kerúbarnir voru jafn stórir og eins gjørdir. 26. Hæd annars Kerúbsins var 10 álnir, og eins hins. 27. Og hann lét þessa Kerúba vera í innra húsinu, og menn breiddu vængi Kerúbsins út, svo ad vængur þess annars nam vid vegginn og vængur hins nam og svo vid hinn vegginn og þeirra vængir mættust í midju húsinu, hvør vængur snart annan. 28. Og hann gillti Kerúbana. 29. Og á øllum veggjum húsins allt um kríng, tilbjó hann skurdverk med Kerúbum, pálmavidi og útspríngandi blómstrum, innan til og utan til. 30. Og húsins gólf gullbjó hann innan og utan. 31. Og fyrir kórdyrnar setti hann vængja hurd úr villtvaxandi Olíuvid. Dyratréd med dyrastøfunum var fimti partur (skilrúmsins). 32. Og á vængja hurdina úr þeim villtvaxandi Olíuvid, gjørdi hann skurdverk med Kerúbum, pálmavid og útspríngandi blómstrum, og gullbjó þad, og breiddi gullid yfir Kerúbana og pálmavidinn. 33. Sømuleidis gjørdi hann í dyrum musterisins stólpa úr villtvaxandi Olíuvid, sem tóku af fjórda part veggsins, 34. og tvennar vængjahurdir úr furuvid, med tveimur hjørum ønnur hurdin, og mátti snúa henni þar á, og med tveimur hjørum hin hurdin, og svo snúanleg. 35. Og hann skar Kerúba og pálmavid, og útspríngandi blómstur hér á, og gullbjó, svo gullid breiddist yfir skurdinn. 36. Hann byggdi og þann innri forgard, þad voru þrjár radir af høggnum steini og ein rød af Sedrusvidar bjálkum. 37. Á fjórda ári var grundvøllurinn lagdur til Drottins húss, í mánudinum Siv, 38. og á ellefta ári í mánudinum Bul (sá er hinn 8di mánudur) var húsid algjørt í øllum þess pørtum og eptir sem þad skyldi vera, og menn voru í 7 ár ad byggja þad.

V. 12. *a.* 2 Sam. 7, 13. V. 13. Ex. 29, 45. Núm. 5, 3. V. 23. *b.* Ex. 25, 18. 37, 7.

## 7. Kápituli.

Kóngshúsið byggt, tveir stólpar og áhöld Musterisins.

1. En sitt hús bygdi Salómon á 13 árum a). Þá lauk hann við allt sitt hús. 2. Og hann bygdi húsið af við úr Líbanons skógi; það var hundrað álna lángt, 50 álna breidt og 30 álna hátt, á fjórum röðum af Sedrusviðar stólpum og Sedrus bjálkar hvildu á stólpunum. 3. Og þakið var það með Sedrusvið yfir bjálkana sem hvíldu á stólpunum, 45 voru þeir, já 15 í hvörri röð, 4. og bjálkalagið var þrefalt og gluggar gagnvart gluggum þrísettir. 5. Og allar dyr og stólpar voru ferkantaðir með plánkaverki, og gluggi mót glugga þrisvar og þrisvar. 6. Og hann byggði forbirgi með stólpum, það var 50 álna á leingd og þrjátíu álna á breidd, og annað forbirgi þar fram af, og stólpa og þrepskjöld fyrir hið sama. 7. Hann gjörði og hásætis forbirgi hvar hann dæmdi, dómsforbirgið, allt gólfið var lagt með Sedrusvið. 8. Og hús hans, sem hann bjó í, var byggt líkt þessu, í öðrum garði innaf forbirginu. Hús byggði hann og handa dóttur Faraós, sem Salómon hafði tekið, (r: sér fyrir konu) einsog þetta forbirgi. 9. Allt þetta var af kostulegum steinum, ferhyrndum eptir máli, sem höfðu verið sagaðir að innan og utantil, neðan frá grundvelli allt upp að þaki, og að utanverðu, allt að þeim stóra garði. 10. Og grundvöllurinn var úr stórum kostulegum steinum, 10 og 8 álna. 11. Og þar ofaná voru kostulegir steinar, höggnir eptir máli, og Sedrusviður. 12. Og sá stóri garður allt umkríng var með þremur röðum af höggnum steini, og röð af Sedrus bjálkum; svo var og sá innri forgarður Drottins húss og forbirgi hússins.

13. Og Salómon Kóngur sendi og lét sækja Hiram frá Tyrus b). 14. Sonur ekkju nokkurrar af Naftali ættkvísl var hann, en faðir hans var tyriskur maður, eirsmiður c); og hann var fullur af viti, skilníngi og kunnáttu að gjöra allrahanda smíðar af eiri d); og hann kom til Salómons Kóngs, og smíðaði allar hans smíðar. 15. Hann bjó til þá tvo eir-stólpa, 18 álna háann hvörn fyrir sig, og 12 álna lángur þráður náði yfirum hvörn þeirra. 16. Og tvo hnúða gjörði hann til að setja ofaná stólpana, steypta úr eiri, 5 álnir var hæð annars hnúðsins, og 5 álnir hins hnúðsins. 17. Netverk, sem netriðill, og snúrur sem kéðjuverk, var á hnúðunum, ofaná stólpunum, sjö á öðrum hnúðnum og sjö á hinum. 18. Og hann bjó til kjarnepli, og það tvær raðir allt um kríng á því eina netverki, til að þekja með hnúðinn sem sat á stólpanum, sama gjörði hann við hinn hnúðinn. 19. Og hnúðarnir á stólpunum í forbirginu voru með liljuverki, það var fjórar álnir. 20. Og hnúðarnir á báðum stólpunum voru 4 álnir á þikkt ofantil við netverkið, um miðjuna, þar sem þeir voru þikkastir, og 2 hundruð kjarnepli, í röðum, voru á hvörjum hnúð. 21. Og hann reisti upp stólpana fyrir forbirgi musterisins, og þann sem hann setti hægra megin kallaði hann Jakin, en þann sem hann setti vinstra megin kallaði hann Boas. 22. Og efst á stólpunum var liljuverk. Og þannig var lokið stólpaverkinu. 23. Og hann gjörði og það steypta haf, (skál) 10 álnir frá einum barmi til annars, það var krínglótt og dýptin var 5 álnir, og það var ummáls 30 álnir. 24. Og hnappar voru með barminum allt um kríng, 10 á hvörri alin (10 álnir), í kríngum hafið; tvær raðir af hnöppum, samsteyptir með hafinu. 25. Það stóð á 12 nautum, þrjú snéru til norðurs, þrjú til vesturs, þrjú til suðurs og þrjú til austurs,

V. 1. *a.* Kap. 6, 38. 9, 10. V. 13. *b.* 2 Kron. 2, 13. V. 14. *c.* Gén. 4, 22. *d.* Ex. 31, 3. 4. V. 15. Sbr. 2 Kóng. 25, 17. 2 Kron. 3, 15. V. 21. Jakin og Bóas. Þetta skyldi merkja staðfestu og styrkleika.

og hafid lá á þeim, og bakhlutir þeirra snéru innad. 26. Þikktin á því var þverhønd, og barmarnir voru sem á bikar, settir liljublómum. Þad tók 2 þúsund bat (5 hundrud tunnur). 27. Hann gjørdi og 10 bord af eiri, hvørt var 4 álnir á leingd og 4 álnir á breidd og 3 álnir á hæd. 28. Og bordin voru svo gjørd: skildir voru á þeim milli hornlistanna. 29. Og á skjøldunum milli hornlistanna voru ljón, naut og kérúbar, og eins á hornlistunum ofantil, en fyrir nedan nautin og ljónin voru kransar med laufverki. 30. Og hvørt bord hafdi fjøgur eir hjól og voru þau med ás úr eiri, og á þeim fjórum hornum voru axlir; undir skálina voru axlirnar steyptar, og kransar á hvørri fyrir sig. 31. Og op skálarinnar var fyrir innan kransinn, og þar uppaf, var alin, (og opid var kringlótt, sama verk á, sem á stólpafæti) hálf ønnur alin á dýpt, og líka var á opinu skurdverk, en skildirnir voru ferkantadir og ekki kringlóttir. 32. Og þau fjøgur hjól voru undir skjøldunum og ásar hjólanna vid bordin, og hæd hvørs hjóls var hálf ønnur alin. 33. Og verkid á hjólunum var sem vagnhjóla verk, þeirra ásar, þeirra augu, þeirra spælar og þeirra umgjørd, var allt steypt. 34. Og fjórar axlir voru á þeim fjórum hornum hvørs bords; á bordinu voru þess axlir. 35. Og ofan á hvørju bordi var kringlótt briggja hálf alin á hæd, og ofaná hvørju bordi var umgjørd til hlidanna og þar á líka skildir. 36. Og hann útgróf á toblur hlida-umgjørdarinnar og á hennar skildi, kerúba, ljón og pálmavid, á sérhvørt audt rúm, og kransar voru í kríngum allt. 37. Þannig gjordi hann þau tíu bordin; þau voru: ein steypa, eitt mál og eitt skøpulag.

38. Og hann gjørdi 10 skálar af eiri a) 40 bat tók hvør skál, hvør skál var 4 álnir á vídd og sín skálin var á hvørju bordi af þeim 10 bordum. 39. Og hann setti bordin 5 hægramegin í húsinu, og 5 vinstramegin í húsinu. Og hafid setti hann hægrameigin í húsinu, austantil ad sunnanverdu.

40. Og Hiram gjørdi potta og skóflur b) og skálar, og Híram lauk vid allt verkid sem hann gjørdi fyrir Kóng Salómon í húsi Drottins. 41. Tvo stólpa og kúlur hnúdanna efst á stólpunum, tvær, og tvø grindverk til hlifdar þeim, nl: þeim bádum kúlum hnúdanna sem voru efst á stólpunum. 42. Og þau 4 hundrud kjarnepli til hvørutveggja grindverkanna, tvær radir af kjarneplum til hvørs grindverks, til hlífdar bádum kúlum hnúdanna á stólpunum. 43. Og þau 10 bord og þær 10 skálar á bordunum. 44. Og þad eina haf og þau 12 naut undir hafinu. 45. Og pottana, skóflurnar c) og skálarnar. Og øll þau áhøld sem Híram gjørdi fyrir Kóng Salómon í Drottins húsi voru úr skygdu eiri. 46. Í Jórdans héradi lét Konúngurinn steypa þau í þéttri jørd milli Sukot og Sartan. 47. Og Salómon lét áhøldin vera óvegin, því nóg var af eirinu, eirid var ekki vegid. 48. Og Salómon gjørdi øll áhøldin sem voru í Drottins húsi. Þad gullbúna altari og bordid, hvar á skodunarbraudin voru, af gulli, 49. og ljósahjálmana, 5 til hægri, og 5 til vinstri hlidar fyrir framan Kórinn, af skíru gulli, og liljurnar og lampana og skarbítina, úr gulli. 50. Og skálarnar og diskana og føtin, og reykelsis kérin, og glódar kérin af skíru gulli, og hjarir á vængja hurdir Kórsins, þess allrahelgasta, og á vængja hurdir húsins, ɔ: Musterisins, úr gulli. 51. Og svo var øllu því verki lokid, sem Salómon gjørdi í húsi Drottins. Og Salómon flutti híngad þad sem Davíd fadir hans hafdi helgad; silfr-

V. 38. *a.* 2 Kron. 4, 6. V. 40. *b.* Sbr. v. 45. Adr. Eldspada. Ex. 27, 3. 38, 3. Adr. ausur. Núm. 4, 14. V. 45. *c.* Sbr. v. 40. V. 51. Sbr. 2 Kron. 5, 1. fl.

id og gullid, og áhøldin lét hann í féhyrdslu Drottins húss.

## 8. Kapítuli.

Musteris vígslan.

1. Þá samansafnadi Salómon øllum Öldúngum Ísraels, øllum foríngjum ættanna, høfdíngjum Ísraelssona ættkvísla, til Salómons Kóngs í Jerúsalem, til þess ad flytja híngad sáttmálsørk Drottins úr Davíds borg, þad er: úr Síon. 2. Og til Salómons Kóngs søfnudust allir menn af Ísrael í mánudinum Etanim, til hátídarinnar (þad er sá sjøundi mánudur) 3. Og allir Ísraels Öldúngar komu, og prestarnir báru ørkina. 4. Og þeir fluttu þángad (í Musterid) ørk Drottins og samkundutjaldid og øll heiløg áhøld, sem voru í tjaldinu, þetta fluttu prestarnir og Levítarnir. 5. Og Kóngurinn Salómon og allur Ísraels søfnudur, sem til hans var kominn, geingu med honum fyrir ørkinni, og fórnfærdu saudum og nautum er ekki vard talid og reiknad fyrir fjølda sakir. 6. Og prestarnir báru sáttmáls ørk Drottins á sinn stad, í kór hússins, inní þad allrahelgasta, undir Kérúbs vængina a), 7. því Kérúbarnir útbreiddu vængina yfir pláts arkarinnar, og huldu ørkina og hennar steingur þar uppyfir. 8. Og steingurnar voru svo lángar ad endarnir á þeim sáust frá því heilaga, fyrir framan Kórinn, en utanad sáust þeir ekki; og þær voru þar allt til þessa dags. 9. Ekkért var í ørkinni nema adeins bædi steinspjøldin sem Móses lagdi þar hjá Horeb (fjalli) þegar Drottinn gjørdi sáttmálann vid Ísraels sonu, þegar þeir fóru úr Egyptalandi. 10. Og þad skédi, þá prestarnir geingu útúr helgidóminum, uppfyllti ský Drottins hús. 11. Og prestarnir gátu ekki stadid þar, til ad gégna þjónustugjørdinni, sakir skýsins, því dýrd Drottins hafdi uppfyllt hús Drotins b). 12. Þá tók Salómon svo til orda: Drottinn hefir sagt, ad hann muni búa í dymmunni c), 13. byggt hefi eg þér hús til íbúdar, stad til adseturs ad eilífu. 14. Og Kóngurinn snéri sínu andliti og blessadi allann Ísraels søfnud, og allur Ísraels søfnudur stód.

15. Og hann mælti: lofadur sé Drottinn Ísraels Gud, sem taladi med sínum munni til Davíds fødur míns, og framkvæmdi þad sem hann sagdi, med sinni hønd: 16. Frá þeim degi ad eg flutti mitt fólk úr Egyptalandi, hefi eg eingann stad valid medal allra Ísraels kynkvísla, ad mér skyldi byggjast hús, svo ad mitt nafn væri þar; og eg valdi Davíd ad hann skyldi vera yfir mínu fólki Ísrael. 17. Og Davíd, fadir minn, hafdi í hug, ad byggja Drottins nafni, Ísraels Gudi hús. 18. Og Drottinn sagdi vid fødur minn Davíd: þared þér hefir komid í hug ad byggja hús mínu nafni, þá er þad vel gjørt, ad þér kom þad í hug; 19. en þú skalt ekki byggja þad hús, heldur sonur þinn, sem kémur af þínum lendum, sá hinn sami skal byggja húsid mínu nafni. 20. Og Drottinn hefir efnt þad ord sem hann taladi, eg kom í stad fødur míns Davíds og setti mig í Ísraels hásæti, eins og Drottinn hafdi talad og byggdi húsid nafni Drottins Guds Ísraels, 21. og gaf rúm í því ørkinni, hvarí sáttmáli Drottins er, sem hann gjørdi vid vora fedur, þá hann flutti þá burt úr Egyptalandi.

22. Og Salómon gékk fyrir altari Drottins í nærveru alls Ísraels safnadar, og hóf upp sínar hendur til himins, 23. og mælti:

V. 1. Sbr. 2. Kron. 5, 2. V. 6. *a.* Ex. 26, 33. 34. V. 9. Ex. 25, 16. 21. 2 Kron. 5, 10. Ebr. 9, 4. V. 11. *b.* Ex. 40, 34. Núm. 9, 15. 2 Kron. 5, 14. 7, 1. V. 12. *c.* 2 Kron. 6, 1. Ex. 20, 21. Devt. 4, 11. V. 13. 2 Sam. 6, 18. V. 22. 2 Kron. 6, 12.

Drottinn Ísraels Gud! einginn Gud er sem
þú, á himninum yfir, eda jørdinni undir, þú
heldur vid þína þjóna þinn sáttmála og nád,
þá sem gánga fyrir þér af øllu hjarta. 24.
Þú héldst vid þjón þinn Davíd, þad sem þú
sagdir; þú hefir talad þad med þínum munni,
og efnt þad med þinni hendi, sem nú er fram-
komid. 25. Og nú, Drottinn Ísraels Gud!
haltu og vid þinn þjón Davíd, fødur minn,
þad sem þú taladir vid hann, þegar þú sagdir:
þig skal ekki vanta mann frammi fyrir mér, sem
sitji í Ísraels hásæti, ef ad eins þínir synir
hafa gát á sínum vegum, ad gánga frammi
fyrir mér, einsog þú geingur frammi fyrir mér.
26. Og nú, Ísraels Gud! rætist þitt ord sem þú
taladir til þíns þjóns Davíds, fødur míns.

27. Mundi Gud í raun og veru búa á jørd-
inni? sjá, himininn og allra himnanna himn-
ar taka þig ekki; hvad þá þetta hús, sem eg hefi
byggt. 28. En snú þér nú ad bæn þíns þjóns
og ad hans grátbeidni, Drottinn, minn Gud!
ad þú heyrir þad ákall og þá bæn sem þinn
þjón í dag bidur þig med, 29. ad þitt auga
sé opid nótt dag og yfir þessu húsi, yfir þessum
stad um hvørn þú hefir sagt: þar skal mitt
nafn vera, ad þú heyrir þá bæn sem þinn þjón
mun frambera á þessum stad a). 30. Svo
hlýd þú þá á grátbeidni þíns þjóns, og þíns
fólks, Ísraels, sem þeir munu á þessum stad
frambera; heyr þú hana í þínum adseturssstad,
á himninum, heyr og fyrirgéf syndir! 31.
Þegar einhvør syndgar móti sínum náúnga og
menn heimta eid af honum og láta hann
sverja, og eidurinn kémur fyrir þitt altari í
þessu húsi: 32. svo heyr þú í himninum, og
vertu ekki adgjørdalaus, og dæm þína þjóna,
ad þú auglýsir, ad sá seki er sekur, og látir
hans breitni honum í koll koma, og ad sá rétt-
láti er réttlátur, med því ad umbuna honum
eptir hans réttlæti. 33. Verdi þitt fólk Ís-
rael sigrad af fjandmønnum, af því þeir syndg-
udu á móti þér, og þeir umvenda sér til þín,
og vidurkénna þitt nafn, og bidja og grátbæna
þig í þessu húsi: 34. þá heyr þú í himninum
og fyrirgéf synd þíns fólks Ísraels, og leid
þad heim aptur í þad land sem þú gafst þeirra
fedrum. 35. Sé himininn læstur, svo ekkért
regn kémur, af því þeir syndga á móti þér,
og þeir bidja á þessum stad, og vidurkénna þitt
nafn, og snúa sér frá sínum syndum, af því
þú audmýkir þá, 36. svo heyr þú í himnin-
um og fyrirgéf syndir þinna þjóna og þíns
fólks Ísraels, eptir ad þú hefir sýnt þeim þann
góda veg, sem þeir eiga ad gánga, og géf
regn yfir landid, sem þú hefir géfid þínu fólki
til eignar. 37. Þegar hallærid kémur í land-
id, eda drepsótt, eda þurkur, eda kornbruni, eda
eydileggjandi eingisprettur eru þar, þegar
fjandmennirnir þreyngja ad fólkinu í landsins
borgum, eda einhvør plága og sjúkdómur:
38. hvørja bæn, hvørja grátbeidni sem þá mun
koma frá hvørjum sem helst manni af øllu Ís-
raelsfólki, þegar þeir kénna til, hvør einn, þess
sem þjäir hans hjarta, og útbreida sínar hend-
ur til þessa húss: 39. þá heyr þú í himnin-
um í stad þinnar íbúdar, og fyrirgéf, og gjør
og géf sérhvørjum eptir allri hans breitni,
einsog þú þekkir hans hjarta; því þú einn
þekkir hjørtu allra mannanna barna b). 40. Svo
þeir óttist þig alla tíma, sem þeir lifa í land-
inu, er þú gafst þeirra fedrum. 41. Og þá
sá útlendi sem ekki er af þínu fólki Ísrael, og
kémur úr framandi landi, vegna þíns nafns,
42. (því þeir munu heyra um þitt mikla nafn,
og þína sterku hønd og þinn útrétta arm)
þegar hann kémur og bidur í þessu húsi:

V. 27. Esa. 66, 1. Postgb. 7, 48. 17, 24. V. 29. *a*. Devt. 12, 5. 11. 1 Kóng. 9, 3. 2 Kóng. 21, 4. V. 31. 2. Kron. 6, 22. Ex. 22, 8. 11. V. 32. Devt. 25, 1. V. 39. *b*. 1 Sam. 16, 7. Sálm. 7, 10.

43. Þá heyr þú í himninum, í bústad þíns adset**urs**, og gjør allt þad sem hinn útlendi bidur þig um, svo ad allar þjódir á jørdunni a) kanníst vid þitt nafn og óttist þig, eins og þitt fólk, Israel, og ad þeir vidurkénni, ad þetta hús sé nefnt eptir þínu nafni, þad sem eg hefi byggt. 44. Og þegar þitt fólk fer út í stríd mót sínum fjandmønnum, á þeim vegi sem þú sendir þad, og þad bidur til Drottins, og (snýr sér) til þess stadar sem þú hefir útvalid, og til þess húss sem eg hefi byggt þínu nafni, 45. þá heyr í himninum þess bæn, og þess grátbeidni, og hjálpa því til ad ná rétti sínum, 46. og þegar þeir syndga á móti þér, (því einginn madur er sá sem ekki syndgi) og þú reidist þeim b), og géfur þá á vald óvinanna, og sigurvegarinn flytur þá í fjandmanna land, fjær eda nær; 47. og þeim geingur þad til hjarta, í því landi hvørt þeir eru fluttir herteknir, og snúa sér til þín og grátbæna þig í landi þeirra sem sigrudu þá, og segja: vér høfum syndgad, og illa breitt og vér vorum ógudlegir c). 48. Og þeir snúa sér til þín, af øllu hjarta og af allri sálu, í landi sinna óvina, sem hafa flutt þá burt hertekna og bidja þig, og (snúa sér) til síns lands sem þú gafst þeirra fedrum, til þess stadar sem þú útvaldir, til þess húss sem eg hefi byggt þínu nafni: 49. þá heyr í himninum í þínum bústad þeirra bæn og grátbeidni, og lát þá ná rétti sínum. 50. Og fyrirgéf þínu fólki þad sem þeir syndgudu móti þér, og allar þeirra yfirtrodslur, med hvørjum þeir brutu á móti þér, og lát þá finna miskunsemi hjá þeim sem sigrudu þá, ad þeir aumkist yfir þá. 51. Því þeir eru þitt fólk og þín eign, þú fluttir þá úr Egyptalandi úr járnofninum d), 52. ad þín augu séu opin fyrir grátbeidni þíns þjóns, og grátbeidni þíns fólks Israels, ad þú heyrir þá, um hvad sem þeir ákalla þig; 53. því þú hefir adskilid þá þér til eignar frá øllum þjódum jardarinnar, eins og þú lofadir fyrir munn þíns þjóns Mósis, þegar þú, minn Drottinn! fluttir vora fedur úr Egyptalandi! 54. En sem Salómon hafdi lokid allri þessari bæn og grátbeidni til Drottins, þá stód hann upp fyrir altari Drottins og lét af ad beigja sín kné, med høndunn útbreiddum til himins; 55. og gékk fram og blessadi Israels søfnud med hárri rødd og mælti: 56. vegsamadur sé Drottinn, sem géfid hefir Israel, sínu fólki, hvíld, rétt eins og hann lofadi! ekkért hans ord er nidurfallid, ekkért af øllum þeim gódu ordum sem hann taladi fyrir sinn þjón, Móses e). 57. Drottinn vor Gud sé med oss, eins og hann hefir verid med vorum fedrum, hann yfirgéfi oss ekki, og dragi sig ekki í hlé vid oss. 58. Hann hneigi vor hjørtu til sín, ad vér gaungum á hans vegum, og høldum øll hans bodord, og hans setnínga og hans réttindi, sem hann baud vorum fedrum (ad halda). 59. Og þessi mín ord, sem eg hefi bedid fyrir Drottni, séu nálæg Drottni vorum Gudi, dag og nótt, ad hann láti sína þjóna njóta síns réttar, sitt fólk Israel, dag eptir dag; 60. svo ad allar þjódir á jørdinni vidurkénni, ad Drottinn er Gud og einginn annar f). 61. Og ydar hjørtu tilheyri Drottni vorum Gudi algjørlega, ad þér gángid eptir hans setníngum, og haldid hans bodord eins og nú á þessum degi.

62. Og Konúngurinn og allur Israel færdu Drottni fórnir. 63. Og Salómon offradi þakkarfórn sem hann fórnfærdi Drottni, 22 þúsundum nauta, og hundrad og 20 þúsundum

---

V. 43. *a.* Esa. 56, 7. V. 46. *b.* Ordskv. 20, 9. Préd. 7, 20. Rom. 3, 23. 1 Jóh. 1, 8. V. 47. *c.* Sálm. 106, 6. Dan. 9, 5. 2 Kron. 6, 37. V. 51. *d.* Devt. 4, 20. V. 56. *e.* Jós. 21, 45. 23, 14. V. 60. *f.* Devt. 4, 35. 39. 32, 39.

sauda, og þannig vígdi Konúngurinn og allir Ísraelssynir, hús Drottins. 64. Á sama degi helgadi Konúngurinn forgardinn fyrir framan Drottins hús; því þar offradi hann brennifórn og matfórn og feiti brennifórnarinnar; því eiraltarid frammi fyrir Drottni, var of lítid til þess þad gjæti tekid brennifórnina, matfórnina og feiti þakkarfórnarinnar. 65. Og Salómon hélt á sama tíma hátíd og allur Ísrael med honum, mikill søfnudur, frá Hemat til Egyptalands lækjar, fyrir Drottni vorum Gudi, í sjø og sjø daga, 14 daga. 66. Þann áttunda dag lét hann fólkid frá sér, og þeir blessudu Kónginn, og fóru burt til sinna tjaldbúda, gladir og med gódu gédi, af øllu því góda, sem Drottinn hafdi audsýnt Davíd sínum þjón, og Ísrael sínu fólki.

## 9. Kapítuli.

Drottinn birtist Salómon í annad sinn. Salómon gefur Híram stadi. Hans tekjur. Offur.

1. En sem Salómon hafdi lokid vid byggíngu Drottins húss, og Kóngsins húss, vid allt þad sem hann lysti og lángadi til ad gjøra; 2. Þá opinberadist Drottinn Salómoni í annad sinn, eins og hann opinberadist honum í Gíbeon. 3. Og Drottinn sagdi til hans: eg hefi heyrt þína bæn, og þá grátbeidni sem þú hefir til mín stílad, eg hefi helgad þetta hús, sem þú hefir byggt, til þess ad geyma þarí mitt nafn ad eilífu, og mín augu og mitt hjarta skulu vera þar alla tíma. 4. Og efad þú þá geingur fyrir mér, eins og fadir þinn Davíd gékk í sakleysi hjartans og einlægni, og hagar þér algjørlega eins og eg býd þér, og heldur mína setnínga og réttindi: 5. svo vil eg stadfesta hásæti þíns Konúngdóms eilíflega, eins og eg hefi talad vid Davíd fødur þinn, þá eg sagdi: þig skal aldrei vanta mann í Ísraels hásæti a); 6. en ef þér og ydar synir snúid ydur frá mér, og haldid ekki mín bodord, mína setnínga, sem eg hefi fyrir ydur lagt, og farid og þjónid ødrum gudum, og tilbidjid þá, 7. svo mun eg uppræta Ísrael úr landinu, sem eg gaf þeim, og þad hús, sem eg hefi helgad mínu nafni, vil eg burt flytja frá mínu augliti, og Ísrael mun verda ad máltæki og spottglósu medal allra þjóda. 8. Og þetta hús, svo háreist sem þad er, hvør sem fram hjá því geingur, honum skal bløskra, og hann skal blístra, og menn munu segja: því hefir Drottinn farid svo med þetta land og þetta hús b)? 9. Og adrir munu svara: af því ad þeir yfirgáfu Drottinn sinn Gud, sem hafdi flutt fedur þeirra úr Egyptalandi, og tóku sér adra gudi og tilbádu þá og þjónudu þeim, því hefir Drottinn leidt yfir þá alla þessa ólukku.

10. Og þad skédi ad 20 árum lidnum, þegar Salómon hafdi byggt bædi húsin, Drottins hús og Kóngsins hús, 11. (Híram Konúngur í Týrus hafdi hjálpad Kóngi um Sedrusvid og furuvid og gull eins og hann vildi), þá gaf Salómon Kóngur Híram 20 stadi í Galilea landi. 12. Og Híram fór frá Týrus, ad skoda stadina sem Salómon hafdi feingid honum, og þeir líkudu honum ekki. 13. Og hann sagdi: hvada stadir eru þad, bródir minn, sem þú hefir mér géfid? og hann kalladi þá Kabuls land, allt til þessa dags.

15. Þannig stendur á þeim kvødum sem Kóngur Salómon heimti, til þess ad byggja Drottins hús, og sitt hús og Millo og Jerúsalems múrvegg og Hasor og Megiddo og Geser. 16. Faraó Kóngur Egyptalands fór leidángur, og inntók Geser c) og brendi hana med eldi, og drap þá Kananíta sem bjuggu í borg-

V. 5. a. 2 Sam. 7, 12. 1 Kron. 17, 12. 22, 10. V. 7. Devt. 4, 26. 8, 19. 28, 37. Jer. 24, 9. V. 8. b. Devt. 29, 24. 2 Kron. 7, 21. Jer. 22, 8. V. 16. c. Jós. 16, 10.

inni, og gaf hana svo í heimanmund dóttur sínni, konu Salómons. 17. Og Salómon bygdi Geser og nedri Bethoron a), 18. og Baelat b) og Tadmor í eydimörk landsins, 19. og alla fordabúra stadi, sem Salómon hafdi, og alla stadi, hvar vagnar voru, og reidmenn og allt sem Salómon hafdi lyst til ad byggja í Jerúsalem og á Líbanon og í øllu landinu sem hann ríkti yfir. 20. Allt þad fólk sem eptir var ordid, af Amorítum, Hetítum, Ferosítum, Hevítum og Jebúsítum, sem ekki var af Israelssonum. 21. þeßsa fólks syni, sem eptir þad voru eptir ordnir í landinu og sem Israelssynir gátu ei eydilagt, þá tók Salómon til skyldu vinnu c), allt til þeßsa dags. 22. En úr Israelssonum gjørdi Salómon einga þræla; því þeir voru strídsmenn, og hans þjónar, herforíngjar, vagn-strídsmenn, foríngjar fyrir hans vagnlidi og riddaralidi.

23. Þetta voru umsjónar menn yfir verki Salómons: 5 hundrud og 50 sem høfdu vald yfir fólkinu, er vann ad verkinu.

24. Jedok dóttir Faraós d) kom úr Davíds stad í sitt hús sem hann hafdi byggt henni, þá bygdi hann Millo e).

25. Og Salómon offradi þrísvar á ári brennifórnum og þakkarfórnum á altarinu, sem hann hafdi byggt Drottni, og reykelsi á því sem stód fyrir Drottni, og hann fullgjørdi húsid.

26. Skip gjørdi líka Salómon Kóngur í Eseon-Geber, sem liggur hjá Elot, á strønd raudahafsins í Edomslandi. 27. Og Híram sendi á skipin, sína þjóna, skipalid, góda farmenn, med þjónum Salómons. 28. Og þeir komu til Ofír og sóktu þángad gull, 4 hundrud og 20 vættir (centner) gulls, færdu þeir Salómon Konúngi.

## 10. Kapítuli.

*Drottníngin af Saba (Arabíu). 2 Kron. 9, 1. Matth. 12, 42. Lúk. 11, 31.*

1. Og Drottníngin af Saba heyrdi ordstír Salómons sakir Drottins nafns, og hún kom til ad reyna hann med gátum. 2. Hún kom til Jerúsalem med mjøg miklum skara, med úlfalda sem báru ilmjurtir og gull næsta mikid, og dýra steina, og kom til Salómons og taladi vid hann allt sem henni bjó í brjósti. 3. Og Salómon sagdi henni allt sem hún spurdi um; ekkért var hulid fyrir Kóngi, ad hann ekki segdi henni þad. 4. Og sem drottníngin af Saba sá alla Salómons vitsku og þad hús sem hann hafdi byggt, 5. réttina á hans bordi, setu hans þjóna og stødu hans þénara, og klædnad, og hans skeinkjara, og hans brennifórnir sem hann offradi í Drottins húsi; þá vard hún frá sér numin, 6. og sagdi vid Konúng: sannleiki var þad tal sem eg heyrdi í mínu landi um þinn aud, og þinn vísdóm. 7. Og eg trúdi ekki því tali, þángad til eg kom, og mín augu sáu; og sjá! eg hafdi ekki frétt helmínginn; þú ert miklu vitrari og audugri enn riktid sagdi mér. 8. Sælir eru þínir menn! sælir þeßsir þínir þénarar sem alltíd standa fyrir þér, sem heyra þína speki! 9. Lofadur sé Drottinn þinn Gud, sem hafdi gédþekkni á þér, svo hann setti þig í Israels hásæti! af því ad Drottinn elskar Israel eilíflega, svo gjørdi hann þig ad Kóngi f), ad þú idkir réttindi og réttvísi.

10. Og hún gaf Konúngi hundrad og 20 vættir (centner) gulls og ilmjurta, harla mikid, og dýra steina, aldrei hefir svo mikid af ilmjurtum komid, sem þad er drottníngin af Saba færdi Salómoni Konúngi. (11. Sømuleidis kom Hírams skip med gull frá Ofír og raudavid mikinn g) og dýra steina, 12. og af þeßsum

V. 17. *a.* 2 Kron. 8, 5. V. 18. *b.* Jós. 19, 44. V. 21. *c.* Jós. 16, 10. Dóm. 1, 28. Gen. 49, 15. V. 24. *d.* 2 Kron. 8, 11. V. 24. *e.* 1 Kóng. 9, 15. V. 26. 2 Kron. 8, 17. fl. V. 9. *f.* 2. Kron. 2, 11. V. 11. *g.* Sbr. v. 12. 2 Kron. 9, 10. 11.

rauda-vid gjørdi Kóngur þílára í Drottins húsí
og í Kóngsins húsí, og hørpur og hljódfæri
fyrir saungmennina; aldrei kom slíkur rauda-
vidur, og ekki hefir hann sjest til þessa dags).
13. Og Salómon Kóngur gaf drottningunni
af Saba alla hennar eptirlaungun, hvad sem hún
girntist, auk þess sem hann gaf henni, eptir
sem hans sídur var; og hún snéri heim aptur
og fór í sitt land.

14. Og þad gull sem Salómon fékk árlega
var ad vigt 666 vættir; 15. auk þess sem kom
frá kræmurum og kaupmanna høndlun, og frá
øllum Kóngum Arabíu, og lénsmønnunum í land-
inu. 16. Og Salómon Konúngur gjørdi 2
hundrud skildi af drifnu gulli, 6 hundrud siklar
gulls fóru í hvørn skjøld, 17. og þrjú hundrud
buklara (smáskildi) af drifnu gulli, þrjú pund
gulls fóru í hvørn buklara. Og Kóngur lagdi
þá í Líbanons skógarhúsid. 18. Konúngur
gjørdi og mikid fílabeins hásæti, og bjó þad
med skíru gulli. 19. Sex stig (trøppur) voru
uppí hásætid, og efri partur bakhlutans á há-
sætinu, var kringlóttur; og bríkur voru beggja-
megin kríngum sætid, og tvø ljón stódu vid
bríkurnar, 20. og 12 ljón stódu á þeim 6 trøpp-
um til beggja hlida, þesshátttar hefir ekki gjørt
verid í nokkru Konúngsríki. 21. Øll drykkju
kér Salómons Kóngs voru af gulli, og øll hús-
gøgn í Líbanons skógarhúsí vóru af klára gulli;
ekkért silfur; þad var einkis metid á døgum Saló-
mons. 22. Því Kóngurinn hafdi skip í førum
med Híráms skipum; einusinni á þremur árum
komu kaupskipin heim, hladin med gull og silf-
ur, fílabein, apakétti og páfugla. 23. Og Saló-
mon var meiri enn allir Kóngar jardarinnar ad
audlegd og vitsku. 24. Og frá øllum løndum
girntust menn ad sjá Salómon, og heyra hans
speki sem Gud hafdi géfid hans hjarta. 25.
Og hvør madur kom med sína gáfu, silfur- og
gull-gripi, og klædi og vopn og ilmjurtir, hesta
og múlasna, árlega. 26. Og Salómon safn-
adi vøgnum og reidmønnum, og hafdi 14 hundr-
ud vagna og 12 þúsund reidmenn, og lét þá
vera í vagnstødunum, og hjá Konúnginum (ɔ:
sér) í Jerúsalem. 27. Og Kóngurinn gjørdi
silfrid í Jerúsalem ei ónægara enn grjót, og
Sedrusvid gjørdi hann ad vøxtum sem mór-
berjavid á láglendi. 28. Hesta sína fékk Saló-
mon frá Egyptalandi; og flokkar Kóngs kaup-
manna sóktu hóp af þeim fyrir tiltekid verd.
29. Hvør vagn sem kom frá Egyptalandi
kostadi 6 hundrud sikla silfurs og hesturinn kost-
adi hundrad og fimtíu. Þeir hinir sømu færdu
þá og øllum Hetítum og Sýrlands Kóngum.

## 11. Kapítuli.

Salómons afgudadýrkun. Andlát.

1. Salómon Kóngur elskadi margar út-
lendar a) konur, med dóttur Faraós, Móa-
bítiskar, Ammonítiskar, Edomítiskar, Sídoniskar,
Hetítiskar konur, 2. af þeim þjódum, um hvør-
jar Drottinn hafdi sagt vid Israels sonu:
þér skulud ekki koma medal þeirra og þeir
skulu ekki koma medal ydar; sannarlega munu
þeir snúa ydar hjørtum til sinna guda b); vid hin-
ar sømu festi Salómon ástir. 3. Og hann hafdi
7 hundrud eigin-konur (drottníngar), og 3 hundr-
ud fridlur, og hans konur snéru hans hjarta. 4.
Og sem hann gjørdist gamall þá snéru hans kon-
ur hans hjarta til annara Guda, og hans hjarta
var ekki algjørlega hjá Drottni hans Gudi, eins
og hjarta fødur hans Davíds. 5. Og Saló-

---

V. 13. Nla. ad géfa þeim herrum sem hann heimsóktu. Eptir ordunum: fram yfir þad sem hann gaf henni eptir hønd Kóngs Salómons. V. 16. 2 Kron. 9, 15. V. 18. 2 Kron. 9, 17. fl. V. 23. Préd. 2, 9. V. 26. 2 Kron. 1, 14. V. 27. 2 Kron. 1, 15. 9, 27. V. 28. 2 Kron. 1, 16. V. 29. 2 Kron. 1, 17. V. 1. *a.* Esr. 10, 2. Neh. 13, 26. 27. Devt. 17, 17. V. 2. *b.* Ex. 34, 16. Devt. 7, 3.

mon hneigdist ad Astorte, afgudi Sídoníta, og Milkom Ammoníta svívirdilega (godi). 6. Og Salómon gjørdi þad sem Drottni ílla líkadi, og hændist ekki ad Drottni svo fullkomlega sem fadir hans Davíd. 7. Þá bygdi Salómon hæd Kamos Móabítanna svívirdilega afgudi a), á fjallinu, sem er gégnt Jerúsalem, og Mólek svívirdilegum afgudi Ammons barna. 8. Og sama gjørdi hann fyrir allar sínar útlendu konur, sem brendu reykélsi fyrir sínum gudum og færdu þeim fórnir.

9. Þá reiddist Drottinn Salómoni, því hans hjarta hneigdist frá Drottni, Israels Gudi, sem hafdi birtst honum tvisvar b), 10. og baud honum þessu vidvíkjandi, ad hænast ekki ad útlendum gudum, en hann héldt ekki þad sem Drottinn baud honum. 11. Því sagdi Drottinn vid Salómon: fyrst ad þú ert svona, og heldur ekki minn sáttmála og mín løg, sem eg hefi þér bodid, þá vil eg sannarlega hrífa ríkid frá þér, og géfa þad þínum þénara; 12. þó vil eg ekki gjøra þad á þínum døgum, sakir fødur þíns Davíds; en af hendi sonar þíns vil eg slíta þad. 13. Þó skal eg ekki taka allt ríkid frá honum; eina c) ættkvísl skal eg géfa honum, fyrir sakir míns þénara Davíds, og vegna Jerúsalem, sem eg hefi útvalid.

14. Og Drottinn lét Salómon fá mótstødumann, nefnil. Edomítann Hadad, hann var af Kónga ætt í Edom. 15. Medan Davíd var hjá Edomítum, skédi þad þegar hershøfdínginn Jóab fór ad jarda þá føllnu, drap hann nidur alla menn af kallkyni í Edom, (16. því Jóab og allur Israel var þar í 6 mánudi, þángad til hann hafdi upprætt allt kallkyn í Edom) 17. ad þá flýdi Hadad, hann og nokkrir Edomítiskir menn, af þjónum hans fødurs med honum, til ad komast til Egyptalands; en Hadad var ennþá úngur madur. 18. Og þeir tóku sig upp í Midían og komu til Paran og þadan til Egyptalands til Faraó Kóngs í Egyptalandi, og hann gaf honum hús, og fékk honum uppheldi, og gaf honum land. 19. Og Hadad fann mikla nád í Faraós augum, og hann gipti honum systur konu sinnar, Drottníngarinnar, Tafenes. 20. Og systir Tafenes fæddi honum Genúbat, hans son, og Tafenes ól hann upp í húsi Faraós, og Genúbat var í Faraós húsi medal Faraós sona. 21. En sem Hadad frétti til Egyptalands ad Davíd væri lagstur hjá sínum fedrum, og hershøfdínginn Jóab dáinn, þá kom Hadad ad máli vid Faraó, og sagdi: leyf þú mér ad fara, eg vil komast í mitt land d). 22. En Faraó svaradi: hvad vantar þig hjá mér? Og sjá! viltu fara í þitt land? og hinn mælti: ekkért (vantar mig); en lofa þú mér ad eins ad fara.

23. Og Gud lét hann fá annann mótstødumann, Reson Eljadason, sem var hlaupinn frá herra sínum Kóngi Hadadeser, Kóngi í Sóba e). 24. Og hann safnadi ad sér mønnum og vard flokks foríngi, þegar Davíd vann þá (Sýrlendsku), og þeir fóru til Damaskus og bjuggu þar, og drottnudu yfir Damaskus. 25. Hann var Israels mótstødumadur alla daga Salómons. Þad var sú ólukka sem Hadad gjørdi; hann hatadi Israel, og vard Kóngur í Sýrlandi.

26. Til var líka Jeróbóam sonur Nebats, Efratíti frá Sareda, módir hans hét Serúja og var ekkja, hann var Salómons þénari, og hann gjørdi uppreisn móti Kónginum. 27. En þetta var tilefnid ad hann lypti sinni hønd á móti Kónginum: Salómon hafdi byggt Millo, (og) girdti fyrir skardid sem var í vegginn á borg Davíds fødur hans. 28. En Jeróbóam var duglegur madur, og þegar Salómon sá

V. 7. *a.* Núm. 21, 29. 1 Kóng. 11, 33. V. 9. *b.* Kap. 3, 5. 9, 2. V. 13. *c.* Sbr. v. 32. V. 21. *d.* Gén. 30, 25. Ex. 4, 18. V. 23. *e.* 2 Sam. 10, 16. V. 26. 2 Kron. 13, 6.

þann únga mann, hvørsu hann vann ad þessu verki, svo setti hann hann yfir alla verkamenn af Jóseps húsi. 29. En sá atburdur vard um sama leiti, ad Jeróbóam ferdadist frá Jerúsalem, þá hitti Spámadurinn Ahía hann á leidinni, og hann var í nýum kyrtli, og þeir voru tveir einir þar á vídavángi. 30. Þá tók Ahía þann nýa kyrtil sem hann var í, og reif hann í 12 parta, og sagdi vid Jeróbóam: taktu nú 10 partana; því svo segir Drottinn Israels Gud: sjá! eg hrífi ríkid af Salómons hendi, og eg vil géfa þér þær 10 ættkvíslir; 32. en þeirri einu ættkvísl skal hann halda a) vegna míns þénara Davíds, og vegna Jerúsalem, þess stadar sem eg hefi útvalid af øllum Israels ættkvíslum; 33. vegna þess þeir hafa yfirgéfid mig, og tilbedid Astorte, god þeirra í Sídon, Kamos b), Móabíta gud, og Milkom, gud Ammonssona, og ekki geingid á mínum vegum, ad gjøra þad sem rétt er fyrir mínum augum, og halda mína setnínga og mín réttindi, einsog Davíd fadir hans. 34. En ekki vil eg taka allt ríkid af honum, heldur vil eg láta hann ríkja alla sína æfi, vegna Davíds míns þénara, sem eg hefi útvalid, og sem hélt mín bodord og setnínga. 35. Og eg vil taka ríkid af syni hans, og géfa þér 10 ættkvíslir. 36. En eina ættkvísl mun eg géfa syni hans til þess ad þénara mínum Davíd skíni alla tíma ljós c) fyrir mér, í Jerúsalem, borginni sem eg hefi útvalid til ad geyma mitt nafn. 37. Og þig vil eg taka til ad ríkja yfir øllu sem þín sála girnist, og ad þú sért Kóngur í Israel. 38. Og ef þú hlýdnast øllu sem eg býd þér, og geingur á mínum vegum, og gjørir þad sem rétt er fyrir mínum augum, svo ad þú heldur mína setnínga og bodord, einsog Davíd minn þénari gjørdi; svo vil eg vera med þér, og byggja þér stødugt hús, einsog eg bygdi þad Davíd, og eg vil géfa þér Israel, 39. og eg vil audmýkja Davíds ætt þess vegna, þó ekki ávalt. 40. Og Salómon vildi drepa Jeróbóam; en þá tók hann sig upp og flýdi til Egyptalands, til Sísak Kóngs í Egyptalandi d), og var í Egyptalandi þángad til Salómon dó.

41. Hin ønnur saga Salómons, um allt hvad hann gjørdi, og um hans speki, þad er skrifad í Salómons søgubók e). 42. Og Salómon ríkti í Jerúsalem yfir øllum Israel í 40 ár. 43. Og Salómon lagdist hjá sínum fedrum, og var jardadur í borg Davíds fødur síns. Og Róbóam sonur hans vard Kóngur í hans stad.

## 12. Kapítuli.

Ríkid skiptist.

1. Og Róbóam fór til Sikem, því til Sikem kom allur Israel ad gjøra hann ad Kóngi. 2. Og þad skédi, þá Jeróbóam sonur Nebats heyrdi þad, (en hann var enn þá í Egyptalandi, flúinn þángad fyrir f) Salómoni Konúngi, og Jeróbóam bjó í Egyptalandi, 3. og þeir sendu eptir honum og kølludu hann) ad þá kom Jeróbóam, og allur Israels søfnudur; og þeir tøludu vid Róbóam og mæltu: 4. Fadir þinn hefir gjørt ok vort þúngt, en gjør þú nú léttari þá hørdu vinnu og þad þúnga ok sem hann á oss lagdi; svo viljum vér þjóna þér. 5. Hann sagdi vid þá: farid nú í burtu í þrjá daga, og komid svo aptur til mín. Og fólkid fór burt.

6. Þá rádfærdi Konúngur Róbóam sig vid þá gømlu, sem stadid høfdu frammi fyrir fødur hans Salómon, medan hann var á lífi, og mælti: hvada svar rádleggid þér ad eg géfi þessu

V. 32. a. Sbr. v. 13. V. 33. b. Núm. 21, 29. V. 36. c. Kap. 15, 4. 2 Kóng. 8, 19. 2 Kron. 21. 7. V. 40. d. 1 Kóng. 14, 25. V. 41. e. 2 Kron. 9, 29. V. 1. 2 Kron. 10, 1. V. 2. f. Kap. 11, 40.

fólki? 7. Þeir svørudu honum og mæltu: ef þú
í dag verdur þénustusamur þessu fólki a), og
eptirlátur, og hlýdir þeim og talar vinsamlega
vid þá, svo munu þeir þjóna þér æfinlega. 8.
En hann sleppti rádum þeirra gømlu sem þeir
rédu honum, og rádfærdi sig vid þá úngu menn,
sem høfdu uppalist med honum, og stódu frammi
fyrir honum. 9. Og hann mælti til þeirra:
hvada svar rádid þér mér ad géfa þessu fólki,
sem vid mig hefir talad og sagt: gjør þú létt-
ara þad ok sem fadir þinn lagdi á oss? 10.
Og þeir úngu menn tøludu vid hann, þeir sem
med honum høfdu uppalist og søgdu: svona
verdur þú ad tala vid þetta fólk, sem vid þig
hefir talad og sagt: þinn fadir hefur gjørt
vort ok þúngt, gjør þú oss þad léttara; svona
skalt þú vid þad segja: minn litli fíngur er
þikkari enn lendar fødur míns; 11. nú, fad-
ir minn hefir lagt á ydur þúngt ok, en eg
vil enn nú bæta á ydar ok, fadir minn refs-
adi ydur med svipum, en eg mun refsa ydur
med skorpíónum.

12. Og er Jeróbóam og allt fólkid kom til
hans á þridja degi, eins og Kóngur hafdi talad
þá hann mælti: komid til mín aptur á þridja
degi, 13. svo svaradi Kóngur fólkinu hardlega
og sleppti þeirri rádleggíng sem øldúngarnir
høfdu géfid honum, 14. og taladi vid þá ept-
ir rádum úngu mannanna og mælti: fadir minn
hefir gjørt ydar ok þúngt, en eg vil ennú bæta
á ydar ok, fadir minn hefir refsad ydur med
svipum, en eg mun refsa ydur med skorpíónum.
15. Og Kóngur gégndi ekki fólkinu, því svo
var tilhagad af Drottni, ad þad ord rættist
sem Drottinn hafdi talad, fyrir munn Ahia
Silonita, vid Jeróbóam son Nebats b); 16.
og sem allur Israel sá, ad Kóngur vildi ekki
gégna þeim, svo gaf fólkid Konúngi svar og
mælti: Hvad er oss vandt vid Davíd? vér
eigum einga hlutdeild í syni Isai c)! heim!
heim Israel! sjá nú þitt hús, Davíd! og svo
fór Israel heim til sín. 17. En Róbóam vard
Konúngur yfir þeim Israels mønnum sem
bjuggu í Júda stødum. 18. Þá sendi Róbó-
am Adóram rentumeistara d), en allur Israel
grýtti hann steinum svo hann dó. En Róbó-
am kóngur flýtti sér í vagn og flúdi til Jerú-
salem. 19. Þannig gékk Israel undan húsi
Davíds, allt til þessa dags.

20. Og þad skédi, þá allur Israel heyrdi ad
Jeróbóam væri aptur kominn, ad þá sendu
þeir eptir honum, og kølludu hann til safnad-
arins, og tóku hann til Konúngs yfir allann
Israel; einginn hélt med Davíds húsi nema
Júda ættkvísl ein. 21. Og er Róbóam kom
til Jerúsalem, samansafnadi hann øllu Júda
húsi og Benjamíns ættkvísl hundrad og 80 þús-
undum, af útvøldum strídsmønnum, til þess ad
fara í stríd vid Israels hús, og til ad koma Kóngs
ríkinu aptur undir Róbóam Salómonsson. 22.
Þá kom ord Drottins til Semaja gudsmanns
og sagdi: 23. tala þú vid Róbóam, Saló-
monsson, Júda Konúng, og vid allt Júda hús
og Benjamín og vid allt hitt fólkid og seg:
24. svo segir Drottinn: farid ekki, og strídid
ekki vid ydar brædur, Israelssyni, fari hvør og
einn heim til sín; því ad minni tilhlutan er
þetta skéde). Og þeir hlýddu Drottins ordi,
og hvurfu aptur, eptir ordi Drottins.

25. Og Jeróbóam bygdi Sikem á Efraims
fjalli og bjó þar, þadan fór hann og bygdi
Pnúel f). 26. Og Jeróbóam sagdi í sínu
hjarta: nú mun Kóngsríkid aptur hverfa til
Davíds húss; 27. ef þetta fólk fer ad fórn-

V. 7. *a.* 2 Kron. 10, 7. V. 15. *b.* Kap. 11, 30. 31. V. 16. *c.* 2 Sam. 20, 1. V. 18. *d.* 2 Sam. 20, 4. V. 19. 1 Kóng. 11, 13. 31. V. 22. 2 Kron. 11, 2. V. 24 *e.* Sbr. v. 15. Kap. 11, 31. V. 25. *f.* Dóm. 8, 17.

færa í Drottins húsi í Jerúsalem, svo mun
hjarta þessa fólks hverfa aptur til síns herra,
til Róbóams, Júda Konúngs, og þeir munu
myrda mig, og gánga aptur undir Róbóam
Júda Kóng. 28. Því leitadi Kóngur ráds,
og gjørdi tvo gullkálfa, og sagdi vid þá: nógu
leingi hafid þér farid til Jerúsalem! sjá, Ísra-
el! þar er þinn Gud, sá sem leiddi þig burt úr
Egyptalandi a). 29. Og hann setti annann
í Betel en hinn í Dan b). 30. Og þetta vard
ad synd c), og fólkid gékk fyrir þann eina allt
til Dan. 31. Og hann bygdi hús á hædun-
um, og tók presta d) af óvøldu fólki sem ekki
var af Leví ætt. 32. Og Jeróbóam setti há-
tíd í þeim áttunda mánudi, 15da daginn, einsog
hátídina sem var haldin í Júda, og fórnfærdi
á altarinu. Eins gjørdi hann í Betel, ad hann
færdi fórnir þeim kálfi sem hann hafdi gjørt, og
setti presta í Betel á þær hædir sem hann hafdi
gjørt. 33. Og offradi á altarinu sem hann hafdi
gjørt í Betel, á 15da degi þess áttunda mánadar,
í þeim mánudi sem hann hafdi upphugsad í sínu
hjarta, og hélt svo hátíd Ísraels sonum, og
fórnfærdi á altarinu og brendi reykelsi.

## 13. Kapítuli.

Spámadurinn í Betel.

1. Og sjá! Gudsmadur nokkur kom frá Júda
eptir ordi Drottins til Betel, medan Jeróbóam
stód vid altarid til ad brenna reykelsi. 2. Og
hann hrópadi mót altarinu eptir ordi Drottins,
og mælti: altari! altari! svo segir Drottinn:
sjá! sonur mun fædast húsi Davíds, Jósía er
hans nafn, hann mun á þér fórnfæra hædanna
prestum, sem á þér tendra reykelsi, og manna
beinum mun á þér brent verda. 3. Og hann
gaf teikn á sama degi, og mælti: þad er merk-
id ad Drottinn hafi talad: sjá, altarid mun
rifna, og askan á því nidur hristast. 4. En sem
Kóngur heyrdi ord gudsmannsins, er hann tal-
adi med háum róm gégn altarinu í Betel, rétti
Jeróbóam sína hønd út frá altarinu og mælti:
grípid hann! en hans hønd, sem hann rétti út
á móti honum, visnadi, og hann gat ekki tekid
hana ad sér aptur. 5. Og altarid klofnadi
og askan hrundi nidur af altarinu, eptir því
teikni sem Gudsmadurinn hafdi géfid samkvæmt
Drottins ordi. 6. Þá tók Kóngur til orda
og mælti vid þennann Gudsmann: grátbæn þú
Drottinn þinn Gud og bid fyrir mér e), ad
mín hønd verdi aptur heil. Þá grátbændi
Gudsmadurinn Drottinn og Kóngsins hønd vard
aptur heil, og eins og ádur. 7. Og Kóngur
sagdi vid þennan Gudsmann: kom þú heim
med mér og endurnær þig, og eg mun géfa þér
gáfu. 8. En Gudsmadurinn sagdi vid Kóng-
inn: þó þú gæfir mér þitt hálfa hús f), svo
mundi eg ei þángad gánga med þér, og eg mun
ekki eta braud, né drekka vatn á þessum stad.
9. Því svo er mér bodid af ordi Drottins sem
sagdi: þú skalt ekkért braud eta og ekkért vatn
drekka, og þú skalt ekki fara sama veg til baka,
sem þú nú fórst. 10. Og hann fór af stad,
adra leid, og ekki þann sama veg, er hann hafdi
komid til Betel.

11. En gamall Spámadur bjó í Betel, og
sonur hans kom til hans, og sagdi honum frá
øllu því sem Gudsmadurinn hafdi gjørt í Betel
á þessum degi; og ord þau er hann hafdi tal-
ad vid Kónginn søgdu þeir (synirnir) fødur sín-
um. 12. Fadir þeirra mælti þá: hvada veg
fór hann? synirnir vissu hvada veg sá guds-
madur fór sem komid hafdi úr Júda (landi).
13. Og hann sagdi vid syni sína: sødlid minn

---

V. 28. *a.* Ex. 32, 4. 8. V. 29. *b.* Dóm. 18, 30. V. 30. *c.* Kap. 14, 16. 2 Kóng. 10, 29. 17, 21. V. 31. *d.* 2 Kron. 11, 15. 13, 9. V. 2. Sbr. 2 Kóng. 23, 16. V. 6. *e,* Ex. 8, 8. Núm. 21, 7. V. 8. *f.* Sbr. Núm. 22, 18.

asna! og þeir sødludu asnann fyrir hann og hann settist á bak. 14. Og hann fór eptir þessum gudsmanni, og fann hann sitjandi undir einni eik og sagdi til hans: ert þú sá gudsmadur sem kom úr Júda (landi)? og hann svaradi: eg em. 15. Og hann mælti til hans: kom heim med mér og et braud! 16. Og hann mælti: eg gét ekki snúid til baka med þér og komid med þér, og mun ekkért braud eta og ekkért vatn drekka med þér á þessum stad. 17. Því til mín er af Drottins ordi sagt: þú skalt ekkért braud eta, og ekkért vatn drekka þar, og þú skalt ekki fara sama veginn til baka sem þú komst. 18. Hinn sagdi þá vid hann: eg er líka spámadur sem þú, og eingill hefur talad vid mig, eptir ordi Drottins, og sagt: fardu med hann til baka med þér í þitt hús, ad hann eti braud og drekki vatn; en hann laug ad honum. 19. Þá fór hann heim med honum og át braud í hans húsi og drakk vatn. 20. En er þeir sátu til bords, kom Drottins ord til Spámannsins sem hafdi snúid hinum aptur, 21. og hann kalladi til þess gudsmanns sem kominn var úr Júdalandi og sagdi: svo segir Drottinn: fyrst þú þverskalladist vid Drottins skipun, og ekki héldst þad bodord sem Drottinn þinn Gud gaf þér, 22. og snérir vid, og átst braud og drakkst vatn á þeim stad, sem hann tiltók og sagdi: þú skalt ekkért braud eta og ekkért vatn drekka þar; þá skal þinn líkami ekki koma í þinna fedra grøf! 23. En eptir ad hann hafdi etid og drukkid, sødladi hann sinn asna, handa þeim Spámanni, er hann hafdi aptur snúid. 24. Og hinn fór svo af stad; en ljón a) vard fyrir honum á veginum sem drap hann; og hans líkami lá þar á gøtunni og asninn stód hjá, og ljónid stód yfir líkinu; 25. og sjá! fólk sem fór um veginn sá líkid liggja á gøtunni, og ljónid standa hjá líkinu, og þeir komu og søgdu frá þessu í stadnum, hvar sá gamli Spámadur bjó. 26. Þegar sá gamli Spámadur, sem hafdi snúid hinum aptur, heyrdi þetta, sagdi hann: þad er sá gudsmadur sem var, óhlýdinn Drottins skipun; því hefir Gud géfid hann ljóninu; þad sundur reif hann og drap hann eptir Drottins ordi, sem hann hafdi til hans talad. 27. Og hann taladi til sona sinna og mælti: sødlid mér asna; og þeir sødludu hann. 28. Svo lagdi hann af stad og fann hans lík liggjandi á veginum og asninn og ljónid stódu hjá líkinu. Ljónid hafdi ekki etid líkamann og ekki rifid í sundur asnann. 29. Þá tók Spámadurinn upp lík þessa gudsmanns, og lagdi þad á asnann og flutti þad til baka. Og sá gamli Spámadur kom til stadarins til ad gráta hann og jarda. 30. Og hann lagdi hann í sína grøf og harmadi hann: (segjandi) æ! minn bródir!

31. En sem hann hafdi jardad hann, sagdi hann vid syni sína: þegar eg dey þá leggid mig í þessa grøf, í hvørri gudsmadurinn er jardadur; leggid mín bein hjá hans beinum! 32. Því þad ord sem hann hrópadi, eptir Drottins ordi móti altarinu í Betel og mót húsunum á hædunum, sem eru í Samaríu stødum, mun vissulega framkoma.

33. Ekki snéri Jeróbóam sér eptir þeuna atburd frá sínum vonda veigi; heldur setti aptur presta af óvøldu fólki b) á hædirnar; hvørja sem honum sýndist kaus hann til, og þeir urdu prestar á hædunum. 34. Og hann vard med þessu, orsøk til Jeróbóams húss syndar, og til þess ad þad upprættist og afmádist af jørdinni.

## 14. Kapítuli.

Spádómur móti Jeróbóam. Hans andlát.

1. Um sama leiti vard Abía sonur Jeróbó=

V. 24. a. Kap. 20, 36. V. 32. Sbr. 2 Kóng. 23, 17. 18. 1 Kóng. 16, 24. V. 33. b. Sbr. Kap. 12, 31. V. 34. Kap. 12, 30. 14, 16. 2 Kóng. 10, 29.

ams sjúkur. 2. Þá sagdi Jeróbóam vid konu
sína: heyrdu! taktu þig nú til, og far þú í
dularbúníng svo eingum komi í hug ad þú sért
kona Jeróbóams, og far til Síló; sjá! þar er
Spámadurinn Ahía a) sem hét mér því, ad
eg skyldi verda Kóngur yfir þessu fólki; 3.
og taktu med þér 10 braud og køkur og krús
med hunángi, og þú skalt gánga til hans,
og hann mun segja þér hvørnig dreingnum
muni afreida. 4. Jeróbóams kona gjørdi svo,
hún tók sig til og fór til Síló, og kom í Ahía
hús; en Ahía sá ekki; því hans augu stódu føst
af elli b). 5. En Drottinn hafdi sagt Ahía:
sjá! kona Jeróbóams kémur til ad spyrja þig
um son sinn, því hann er sjúkur; þetta og þetta
skaltu segja henni; og þad mun ské þegar hún
kémur, svo mun hún látast vera ønnur enn hún
er. 6. En sem Ahía heyrdi skóhljód hennar c),
í því hún gékk inn um dyrnar, mælti hann:
kom þú inn, Jeróbóams kona! því vilt þú dyl-
jast? En eg er sendur til þín med harda ord-
sendíng. 7. Far þú og seg Jeróbóam: svo
segir Drottinn Israels Gud: af því eg upp-
hóf þig úr lágu standi og setti þig høfdíngja
yfir mitt fólk Israel, 8. og hreif Kóngsríkid
af Davíds húsi og gaf þér, en þú ert ekki sem
minn þjón Davíd, sem héldt mín bodord, og
adhyltist mig af øllu hjarta, ad hann gjørdi
þad eitt sem rétt væri fyrir mínum augum,
9. og af því þú hefir hagad þér verr enn all-
ir þeir sem fyrir þig vóru, og hefir geingid
afvega og gjørt þér adra gudi og steypt bí-
læti, til ad egna mig til, og hefir kastad mér
aptur fyrir þitt bak d). 10. Vegna þessa leidi
eg ólukku yfir Jeróbóams hús, og uppræti
fyrir Jeróbóam allt kallkyn, þrælinn og þann
frjálsa, í Israel, og sópa burt Jeróbóams húsi,
einsog menn sópa burt hroda, alveg. 11. Hvør
sem deyr af Jeróbóams ætt í borginni, þann
skulu hundar uppeta, og hvør sem deyr útá
vídavángi, skulu himinsins fuglar uppeta e);
því Drottinn hefir svo talad. 12. Og taktu
þig nú til og far heim. Þegar þínir fætur
stíga inn í borgina mun barn þitt deya, 13.
og allur Israel mun gráta hann og menn
munu jarda hann, því hann er sá eini af Jeró-
bóams ætt sem mun fá greftrun, því hjá hon-
um hefur fundist eitthvad, í Jeróbóams húsi,
Drottni Israels Gudi þóknanlegt. 14. Og
Drottinn mun setja sér Kóng yfir Israel sem
mun afmá Jeróbóams hús á sama degi f),
og hvad (segi eg?) þad nú þegar! 15. Og
Drottinn mun slá Israel (svo hann rambi til
og frá) einsog reir í vatni, og hann mun slíta
Israel burt úr þessu góda landi sem hann gaf
þeirra fedrum, og mun tvístra þeim, hinumeg-
in vid ána, af því þeir gjørdu sér offurlunda,
og egndu Drottinn til. 16. Og hann mun
ofurselja Israel sakir synda Jeróbóams, því
hann hefir bædi syndgad og tælt Israel til
ad syndga.

17. Þá stód upp Jeróbóams kona, fór og
kom til Tirsa, og sem hún gékk inn fyrir þrep-
skjøldinn, þá dó sveinninn. 18. Og þeir jørd-
udu hann, og allur Israel harmadi hann,
eptir ordi Drottins, sem hann hafdi talad fyr-
ir sinn þénara Spámanninn Ahía.

19. Hvad meira er ad segja um Jeróbóam,
hvørnig hann stríddi og ríkti, þad er skrif-
ad í árbókum Israels Konúnga g). 20. Og
Jeróbóam ríkti 22 ár, og hann sofnadi hjá
sínum fedrum, og Nadab, sonur hans, vard Kóng-
ur í hans stad.

V. 2. *a.* Kap. 11, 30. 31. V. 4. *b.* Gen. 27, 1. 48, 10. 1 Sam. 4, 15. V. 6. *c.* 2 Kóng. 6, 32. V. 9. *d.* Jer. 2, 27. 32, 33. Ez. 23, 35. V. 11. *e.* Kap. 16, 4. V. 13. Sbr. v. 18. V. 14. *f.* A sama degi (sem hann verdur Kóngur), Kap. 15, 29. V. 18. Sbr. v. 13. V. 19. *g.* 1 Kóng. 15, 31. 16, 5. 14. 20. 27. 22, 39.

21. En Róbóam Salómonsson ríkti yfir Júda; Róbóam hafdi einn um fertugt þá hann vard Kóngur og 17 ár ríkti hann í Jerúsalem, þeim stad sem Drottinn hafdi útvalid, af øllum Israels ættkvíslum, til ad setja þar sitt nafn, en módir hans hét Naema og var Ammonítisk kona. 22. Og Júda gjørdi þad sem Drottni illa líkadi, og þeir egndu hann enn meir til reidi, en allar þær syndir sem forfedur þeirra høfdu drýgt. 23. Þeir bygdu sér og hædir, stólpa og lunda, á øllum háum hólum, og undir hvørju grænu tré a). 24. Afgudadýrkendur vóru og í landinu; þeir adhøfdust alla þá sømu vidurstygd, sem þær þjódir er Drottinn hafdi útrekid frá Israels sonum.

25. Á 5ta ári ríkisstjórnar Róbóams, fór Sísak b) Egyptalands Konúngur herfør móti Jerúsalem, 26. og hann tók fjársjóduna úr Drottins húsi og úr Kóngsins húsi, allt tók hann, og hann tók alla þá gullskildi c) sem Salómon hafdi látid gjøra. 27. Og Róbóam Kóngur gjørdi í þeirra stad eirskildi, og fékk þá til geymslu høfudsmønnum hirdarinnar, sem geyma dyra á Kóngsins húsi. 28. Og í hvørt sinn sem Konúngur kom í Drottins hús, báru hirdmennirnir þá, og fóru med þá aptur í hirdmanna herbergid.

29. En hvad meir er um Róbóam ad segja, og allt hvad hann gjørdi, þad stendur skrifad í árbókum d) Júda Kónga. 30. Og ófridur var altaf milli Róbóams og Jeróbóams. 31. Og Róbóam sofnadi med sínum fedrum og var jardadur hjá sínum fedrum í Davíds borg; en módir hans hét Naema, Ammonítisk kona. Og Abíam, sonur hans, vard Kóngur í hans stad.

# 15. Kapítuli.

Abíam og Ása Júda Kóngar. Nadab Kóngur í Israel.

1. Á átjánda ári Kóngs Jeróbóams sonar Nebats, vard Abíam Kóngur yfir Júda. 2. Þrjú ár ríkti hann í Jerúsalem. En módir hans hét Maeka, dóttir Abísalónis e). 3. Hann gékk í øllum syndum fødur síns, sem hann hafdi fyrir honum haft, og hans hjarta hneigdist ekki algjørlega ad Drottni, hans Gudi, eins og hjarta fødur hans Davíds. 4. Þó lét Drottinn hans Gud, honum ljós f) skína í Jerúsalem, því hann lét son hans koma til ríkis eptir hann, og Jerúsalem vidhaldast, 5. af því Davíd hafdi gjørt þad sem rétt var í Drottins augsýn, og ekki vikid frá neinu sem Drottinn hafdi honum bodid, medan hann lifdi, nema hvad Hetítann Uría áhrærir g). 6. Og ófridur var milli Róbóams og Jeróbóams alla hans lífdaga. 7. En hvad meira er ad segja um Abíam, og allt hvad hann gjørdi, þad stendur skrifad í árbókum Júda Konúnga h), og ófridur var milli Abíam og Jeróbóam i). 8. Og Abíam lagdi sig hjá sínum fedrum, og menn grófu hann í Davíds borg k), og Ása sonur hans vard Kóngur í hans stad.

9. Á 20ta ári Jeróbóams, Israels Kóngs, vard Ása Kóngur yfir Júda, 10. og 41 ár ríkti hann í Jerúsalem. En módir l) hans hét Maeka dóttir Abísalónis. 11. Og Ása gjørdi þad sem rétt var í augum Drottins, eins og fadir hans Davíd. 12. Hann rak úr landi afgudadýrkendur m) og kom úr vegi afguda bílætum sem fadir hans hafdi gjørt.

13. Maeka módur sína svipti hann drottníngar tigninni, fyrir þad hún hafdi sett óttalegt

V. 21. 2 Kron. 12, 13. V. 23. *a.* 2 Kóng. 16, 4. 17, 10. V. 24. Devt. 18, 9. 2 Kóng. 21, 2. 11. 2 Kron. 28, 3. V. 25. *b.* Kap. 11, 40. *c.* Kap. 10, 16. V. 29. *d.* 2 Kóng. 14, 18. V. 2. *e.* 2 Kron. 13, 2. V. 4. *f.* Kap. 11, 36. 2 Kóng. 8. 19. V. 5. *g.* 2 Sam, 11, 27. 12, 9. V. 6. Kap. 14, 30. V. 7. *h.* Kap. 14. 29. 2 Kóng. 14, 18, *i.* 2 Kron. 13. 2, 17. V. 8. *k.* 2 Kron. 14, 1. V. 10. *l.* þ. e. fodur módir. V. 12. *m.* Kap. 22, 47.

afguds bílæti í offur lundinn. Og Asa tók burt þad óttalega bílæti og brendi þad í Kedronsdal. 14. En hædirnar voru ekki afteknar; þó hneig hjarta Asa algjørlega ad Drottni, svo leingi sem hann lifdi. 15. Og hann flutti í Drottins hús allt þad sem fadir hans hafdi helgad og hann sjálfur hafdi helgad, silfur og gull og áhøld.

16. En ófridur var milli Asa og Baesa, Israels Kóngs, svo leingi sem þeir lifdu. 17. Og Baesa Israels Kóngur fór leidángur móti Júda, og bygdi Rama, svo einginn madur gjæti komist inn eda út, hjá Asa Júda Kon-úngi. 18. Þá tók Asa allt þad silfur og gull sem eptir var ordid í féhirdslu Drottins húss, og fjársjódu Kóngsins húss, og fékk í hendur sínum þénurum; og Kóngurinn Asa sendi þá til Benhadad, sonar Tabrimmons, sonar Hesions Kóngs í Sýrlandi, sem bjó í Damaskus, og mælti: 19. sáttmáli er milli mín og þín, milli míns fødurs og þíns føðurs, sjá! eg sendi þér gáfu af gulli og silfri; legg af stad! bregd þú upp sáttmálanum vid Baesa Israels Kóng, ad hann hverfi frá mér. 20. Benhadad fór ad ordum Asa Júda Kóngs, og sendi sína herforíngja móti Israels stødum og vann Ijon og Dan og Abel, Bet-Maeka, og allt Kinerot, og allt Naftali land. 21. Og þá Baesa heyrdi þad, hætti hann ad byggja Rama, og stadnæmdist í Tirsa. 22. En Asa Konúngur lét samankalla allann Júda lýd, einginn var frí, og þeir fluttu burt frá Rama steinana og vidinn, sem Baesa hafdi byggt af, og Konúngurinn Asa byggdi þar af Geba í Benjamíns landi og Mispa. 23. En hvad meir er ad segja um Asa og um øll hans afreksverk, og allt hvad hann gjørdi, og um þá stadi er hann byggdi, þad stendur skrifad í árbókum a) Júda Kónga; einasta (er þess ad géta), ad á efri árum vard hann veikur í fótunum. 24. Og Asa lagdist hjá sínum fedrum, og var grafinn hjá sínum fedrum í borg Davíds fødur síns, og Jósafat sonur hann, vard Kóngur í hans stad.

25. En Nadab, sonur Jeróbóams vard Kóngur yfir Israel á ødru ári Asa, Júda Kóngs, og ríkti yfir Israel 2 ár. 26. Og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins, og gékk á vegum síns føðurs og í hans syndum, til hvørra hann ginnti Israel. 27. En Baesa sonur Ahías af Isaskars húsi, gjørdi samband móti honum b); og Baesa vann hann hjá Gibbeton í Filistealandi, medan Nadab og allur Israel sat um Gibbeton. 28. Og sídan drap Baesa hann á 3ja ári Asa Kóngs í Júda, og vard Konúngur í hans stad. 29. Og medan hann sat ad ríki, drap hann nidur alla Jeróbóams ætt, hann lét eingann sem anda dró af Jeróbóams nidjum komast undan, ad hann ei afmádi hann, eptir ordi Drottins, sem hann hafdi talad fyrir sinn þjón Ahía, Silónítann c), 30. vegna synda Jeróbóams, er hann drýgdi, og ginnti Israel til ad drýgja, vegna þeirrar tilegníngar, med hvørri hann egndi til Drottinn Gud Israels.

31. En hvad meir er um Nadab ad segja og allt sem hann gjørdi, þad stendur skrifad í árbókum Israels Kónga d). 32. Og ófridur var milli Asa og Baesa Israels Kóngs, medan þeir lifdu. 33. Á þridja ári Asa Kóngs í Júda, vard Baesa sonur Ahía, Kóngur yfir øllum Israel í Tirsa og hann ríkti 24 ár. 34. Og hann gjørdi þad sem íllt var fyrir Drottins augliti, og gékk á vegum Jeróbóams og í hans syndum, hvar til hann hafdi afvegaleidt Israel.

V. 17. 2 Kron. 16, 1. V. 23. *a.* 1 Kóng. 14, 19. V. 26. Kap. 16, 19. 26, 31. V. 27. *b.* Kap. 16, 9. 2 Kóng. 12, 20. V. 29. *c.* Kap. 14. 10. V. 31. *d.* Kap. 16, 5. 14. 20. 27. 22, 39.

## 16. Kapítuli.

Spámadurinn Jehú. Ela, Simri, Omri, Israels Konúngar, samt Akab.

1. Og ord Drottins kom til Jehú Hananissonar, móti Baesa svo látandi: 2. vegna þess ad eg hóf þig upp úr duftinu, og setti þig høfdíngja yfir mitt fólk Israel, en þú gékkst á vegum Jeróbóams, og afvega leiddir til syndar mitt fólk Israel, svo ad þeir egndu mig til med sínum syndum. 3. Sjá! svo sópa eg burt Baesa og hans húsi, og gjøri þitt hús jafnt húsi Jeróbóams, sonar Nebats a). 4. Hvørn, sem deyr í stadnum, af Baesa ætt, skulu hundar eta, og hvørn, sem deyr af hans nidjum á vídavángi, skulu fuglar himinsins uppeta. 5. En hvad meir er ad segja um Baesa, og hvad hann gjørdi, og um hans hreystiverk, þá stendur þad skrifad í árbókum b) Israels Konúnga. 6. Og Baesa lagdist hjá sínum fedrum og var grafinn í Tirsa, og Ela, hans son, vard Kóngur í hans stad. 7. Fyrir milligaungu Jehú Spámanns, Hananissonar, kom ord Drottins móti Baesa og móti hans húsi, bædi vegna alls þess illa sem hann hafdi adhafst fyrir Drottins augsýn, því hann egndi hann til med verkum sinna handa, svo ad hann var einsog Jeróbóams hús, og líka vegna þess ad hann eydilagdi þad (: Jeróbóams hús).

8. Á 26ta ári Asa Kóngs í Júda, vard Ela, sonur Baesa, Kóngur yfir Israel í Tirsa og ríkti í 2 ár. 9. Hans þénari Simri, sem var foríngi fyrir helftinni af vagnlidinu, gjørdi samband á móti honum; og er hann drakk sig drukkinn í Tirsa, í húsi Asa, sem var yfir húsi (Kóngsins) í Tirsa, 10. kom Simri c) þángad og vann á honum og drap hann, á 27da ári Asa Júda Kóngs, og vard Konúngur í hans stad. 11. En eptir ad hann var ordinn Konúngur, og setstur í hásætid, drap hann nidur í strá alla Baesa ætt, og lét ekkért eptir verda af karlkyni, hvørki hans ættmenn, né vini. d) 12. Svo afmádi Simri alla Baesa ætt eptir ordi Drottins, er hann hafdi talad fyrir munn spámannsins Jehú; 13. sakir allra Baesa synda og Ela sonar hans, sem þeir høfdu drýgt og komid Israel til ad drýgja, ad þeir egndu Drottinn Israels Gud til, med sínum afgudum.

14. En hvad meir er ad segja um Ela og allt hvad hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Israels Kónga e).

15. Á 27da ári Asa, Júda Kóngs, vard Simri Konúngur, og ríkti 7 daga í Tirsa; en fólkid sat um Gibbeton í Filistea landi. 16. En sem fólkid í herbúdunum heyrdi ad sagt var: Simri hefir gjørt uppreisn, og líka drepid Kónginn, tók allt Israels fólk hershøfdíngjann Omri til Kóngs yfir allann Israel í herbúdunum á þeim sama degi. 17. Þá fór Omri og allur Israel med honum frá Gibbeton, og settist um Tirsa. 18. En er Simri sá ad stadurinn mundi verda tekinn, gékk hann inní høllina í Kóngshúsinu og kveikti med eldi í Konúngshúsinu, yfir høfdi sér, og dó, 19. sakir synda þeirra sem hann hafdi drýgt, ad hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins og gékk á vegum Jeróbóams og í hans syndum f) sem hann drýgdi, og ad hann kom Israel til ad syndga.

20. Hvad meira er ad segja um Simri og þad samsæri g) sem hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Israels Kónga. 21. Þá gékk Israels fólk í tvær sveitir, helmíngur fólks-

V. 1. Sbr. v. 7. V. 3. *a.* Kap. 15, 29. V. 4. Kap. 14, 11. 21, 24. V. 5. *b.* 2 Kron. 16, 1. V. 7 Sbr. v. 1. 12. V. 10. *c.* 2 Kóng. 9, 31. V. 11. *d.* 1 Sam. 25, 22. 1 Kóng. 14, 10. 21, 21. V. 12 sbr. v. 1. 7. V. 14. *e.* Kap. 15, 31. 22, 39. V. 19. *f.* v. 26. 31. 15, 26. 34. V. 20. *g.* Kap. 14, 19. 15, 31.

ins fylgdi Tibní syni Ginats, og vildi gjøra hann ad Kóngi, og hinn helmíngurinn fylgdi Omrí. 22. En þad fólk sem fylgdi Omrí fékk yfirhønd yfir því fólki sem fylgdi Tibní, syni Ginats, og Tibní dó, og Omri vard Kóngur.

23. Á 31ta ári Asa Júda Kóngs, vard Omrí Koníngur yfir Ísrael, og ríkti 12 ár; 6 ár ríkti hann í Tirsa. 24. Og hann keypti Samaríu fjall af Semer fyrir 2 vættir (centner) silfurs, og setti bygd á fjallinu, og nefndi stadinn sem hann bygdi Samaría, eptir nafni Semers sem átt hafdi fjallid. 25. Og Omrí gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins, og hagadi sér verr enn allir fyrir hann. 26. Og hann gékk á øllum vegum Jeróbóams sonar Nebats og í hans syndum, hvar til hann hafdi leidt Ísrael, ad egna Drottinn Ísraels Gud til, med þeirra afgudadýrkun. 27. En hvad meir er ad segja um Omrí, hvad hann gjørdi, og þau hreystiverk, sem hann vann, þá stendur þad skrifad í árbókum Ísraels Kónga. 28. Og Omrí lagdi sig hjá sínum fedrum og var grafinn í Samaría, og Akab, sonur hans, vard Kóngur í hans stad.

29. En Akab Omríson, vard Kóngur yfir Ísrael á 38da ári Asa, Júda Kóngs, og Akab sonur Omrí ríkti yfir Ísrael í Samaríu 22 ár. 30. Og Akab sonur Omrí gjørdi þad sem Drottni illa líkadi fremur enn allir fyrir hann. 31. Og hann lét sér ekki nægja ad gánga í syndum Jeróbóams sonar Nebats a) heldur tók hann sér konu, Jesabel, dóttur Sidónita Kóngs Etbaals, og fór og þjónadi Baal og tilbad hann. 32. Og hann reisti Baal altari í Baals húsi b), sem hann hafdi byggt í Samaría. 33. Og Akab gjørdi blótlund, og enn meira gjørdi hann, til ad módga Drottinn Ísraels Gud, framyfir alla Ísraels Kónga, sem fyrir hann høfdu verid.

34. Á hans døgum bygdi Híel, frá Betel, Jeríkó. Þad kostadi hann frumgétníng hans, Abíram, þá hann lagdi grundvøllinn, og hans yngsta son Segúb, þá hann setti borgarhlidid, eptir Drottins ordi, sem hann hafdi talad vid Jósúa son Núns. Jósb. 6. 26.

## 17. Kapítuli.

Spámadurinn Elías.

1. Og Elía Tisbíter, sem bjó í Gílead, sagdi vid Akab: svo sannarlega sem Drottinn, Ísraels Gud, lifir, frammi fyrir hvørjum eg stend, á þessum missirum skal hvørki døgg né regn falla, nema eg segi. 2. Og ord Drottins kom til hans, svo látandi: 3. far þú hédan, og austurá vid, og fel þú þig hjá læknum Krít, sem er fyrir austan Jórdan; 4. Og úr læknum skalt þú drekka, og hrøfnunum hefi eg bodid ad veita þér þar uppheldi. 5. Þá fór hann, og gjørdi eptir Drottins ordi, og hann fór, og var hjá læknum Krít, sem er fyrir austan Jórdan. 6. Og hrafnarnir færdu honum braud og kjøt á morgnana, og braud og kjøt á kvøldin, og úr læknum drakk hann.

7. En eptir nokkurn tíma þornadi lækurinn upp. 8. Þá kom ord Drottins til hans svo látandi: 9. tak þig upp! far þú til Sarefta, sem tilheyrir Sídon, og vertú þar; sjá! eg hefi bodid ekkju nokkurri þar, ad fæda þig. 10. Og hann tók sig upp, og fór til Sarefta, og kom ad borgarhlidinu, og sjá! þá tíndi ekkja saman vid; og hann kalladi til hennar og mælti: sæk þú mér dálítid af vatni í ílátinu, ad eg fái ad drekka. 11. Og hún fór ad sækja þad, og hann kalladi til hennar og mælti: færdu mér og braudbita med. 12. Hún svaradi: svo

V. 25. sbr. v. 30 og 33. V. 30. sbr. v. 25. 33. V. 31. *a.* Kap. 15, 26. 34. 22, 53. 2 Kóng. 10, 29. V. 32. *b.* 2 Kóng. 3. 2. 10, 27.

sannarlega sem Drottinn þinn Gud lifir! eg hefi ekki braud, heldur ad eins svosem hnefa mjøls í íláti og lítid eitt af vidsmjøri í krús, og sjá! eg tíni saman vidarsmælki, og ætla heim, og matbúa þetta handa mér og syni mínum, ad vid etum þad, og deyum svo. 13. Elía svaradi henni: vert þú óhrædd! far þú heim gjør þú sem þú sagdir, gjørdu mér samt fyrst litla køku af því, og kom þú med hana híngad til mín, og matreid þú svo handa þér og syni þínum. 14. Því svo segir Drottinn Ísraels Gud: mjølid í ílátinu skal ekki mínka, og vidsmjørs krúsin a) skal ekki tæmast, allt til þess dags ad Drottinn géfur regn á jørdina. 15. Og hún fór burt og gjørdi sem Elía sagdi, og hún át, hann og hún og hennar hús, um nokkurn tíma. 16. Mjølid mínkadi ekki í ílátinu, og vidsmjørs krúsin tæmdist ekki, eptir Drottins ordi, sem hann hafdi talad fyrir munn Elía.

17. Eptir þetta sýktist sonur konunnar, húsmódurinnar, og sjúkdómurinn vard mikid þúngur, svo eingin andardráttur var framar í (honum) þeim sjúka. 18. Þá mælti hún vid Elía: hvad hefi eg med þig ad gjøra b) þú gudsmadur? þú ert til mín kominn, til ad minna á mína synda sekt, og til ad deyda son minn! 19. Og hann sagdi vid hana: fá þú mér son þinn! Og hann tók hann úr hennar kjøltu, og bar hann uppá lopt, hvar hann hafdi herbergi, lagdi hann í sína sæng. 20. Og hann kalladi til Drottins, og mælti: Drottinn minn Gud, hefir þú líka farid illa med ekkjuna, sem eg er hjá, ad deyda son hennar? 21. Og hann lagdi sig þrisvar yfir barnid og kalladi til Drottins, og mælti: Drottinn minn Gud, ó! ad sál sveinsins mætti aptur til hans koma! 22. Og Drottinn heyrdi Elía raust, og sál sveinsins kom í hann aptur, og hann lifdi. 23. Þá tók Elía sveininn og bar hann nidur í húsid, af loptinu, og fékk hann módurinni og mælti: sjá! sonur þinn er lifandi. 24. Þá sagdi konan vid Elía: nú kannast eg enn betur vid ad þú ert Guds madur, og ad Drottins ord í þínum munni er sannleikur c).

## 18. Kapítuli.

*Ennú um Elía.*

1. Laungu seinna kom ord Drottins til Elía, á þridja ári, svo látandi: far þú nú og láttu Akab sjá þig; því eg vil géfa regn á jørdina d). 2. Þá fór Elía til ad láta Akab sjá sig. En húngrid var mikid í Samaría. 3. Og Akab kalladi fyrir sig Obadía, sem var yfir húsinu (nl. Kóngsins e), (en Obadía óttadist Drottinn; 4. og þegar Jesabel fyrirfór Drottins Spámønnum, tók Obadía, hundrad Spámenn og fól þá, já, sína 50 menn í hvørjum hellir, og lét þá hafa braud og vatn). 5. Og Akab sagdi vid Obadía: far þú um landid til allra vatnslynda og lækja, máské vid finnum gras, ad vid gétum haldid hrossum og múlum, og ekki falli allur fénadurinn. 6. Og þeir skiptu med sér landinu til yfirferdar; Akab fór einn adra leidina, og Obadía fór einn hina leidina.

7. En sem Obadía var kominn á ferdina, sjá! þá mætti Elía honum. Og Obadía þekkti hann og féll á sitt andlit og mælti: ert þú þad, minn herra, Elía? 8. Og hann mælti: eg em þad! far þú og seg þínum herra: sjá! Elía er hér. 9. Og hann svaradi: hvad hefi eg syndgad ad þú vilt géfa þinn þjón á Akabs vald, ad hann deydi mig. 10. Svo sannarlega sem Drottinn þinn Gud lifir! þar er eingin þjód og ekkért Kóngsríki til, ad minn herra hafi ekki þángad sendt til ad leita þín; og segdu menn:

V. 14. *a* 2 Kóng. 4, 2. V. 18. *b.* Dóm. 11, 12. 2 Sam. 16, 10. 2 Kóng. 3 13. V. 24. *c.* 2 Sam. 7, 28. V. 1. *d.* Jak 5, 18. V. 3. *e.* Kap. 4, 6.

hann er hér ekki, lét hann Kóngsríkid og fólkid sverja, ad þú findist þar ekki; 11. Og nú segir þú: far og seg þínum herra: sjá! Elía er hér. 12. Og þegar eg fer nú frá þér, og andi Drottins flytur þig, eg veit ei hvørt, og kém og segi Akab frá, og hann finnur þig ekki, svo deydir hann mig, og þinn þjón hefir þó óttast Drottinn frá barnæsku. 13. Hefir ekki herra minn frétt hvad eg gjørdi, þegar Jesabel deyddi Drottins Spámenn, ad eg fól hundrad menn, sína 50 í hvørjum hellir, og lét þá hafa braud og vatn? 14. Og nú segir þú: far og seg herra þínum: sjá! Elía er hér, og hann mun deyda mig. 15. En Elía svaradi: svo sannarlega sem Drottinn allsherjar lifir, frammi fyrir hvørjum eg stend! eg vil láta hann sjá mig í dag.

16. Þá fór Obadía til móts vid Akab, og sagdi honum frá. Og Akab fór til fundar vid Elía. 17. En sem Akab sá Elía, mælti Akab vid hann: ert þú sá sem leidir ólukku yfir Ísrael? 18. Og hinn svaradi: ekki hefi eg leidt ólukku yfir Ísrael, heldur þú og þíns fødurs hús, þegar þér yfirgáfud bodord Drottins, og eltud afgudi (Baal a). 19. Og sendu nú og samansafnadu til mín øllum Ísrael, til fjallsins Karmel og þeim 450 Baals prestum og 400 Astarte prestum, sem eta vid Jesabels bord. 20. Og svo sendi Akab út á medal allra Ísraels sona, og safnadi Spámønnunum til fjallsins Karmel.

21. Þá gékk Elía fram fyrir allt fólkid og mælti: hvørsu leingi haltrid þér til beggja hlida? Sé Drottinn ydar Gud, þá adhyllist hann. Og sé Baal þad, þá adhyllist hann. Og fólkid ansadi honum eingu ordi. 22. Og Elía sagdi til fólksins: eg er einn eptir ordinn b) af Drottins spámønnum, og Baals spámenn eru 4 hundrud og 50. 23. Svo fáid oss nu tvø naut, og þeir meiga velja sér hvørt nautid sem þeir vilja, og skulu britja þad, og leggja á vidinn, en eingann eld leggja ad; en eg skal offra ødru nautinu, og leggja á vidinn, og leggja eingann eld þar ad, 24. ákallid svo nafn ydar Guds, og eg skal ákalla nafn Drottins, og sá Gud, sem svarar med eldi, hann sé Gud! Og allt fólkid svaradi og mælti: þetta er vel sagt! 25. Og Elía sagdi vid Baals Spámenn: veljid nú annad nautid og offrid því fyrst, því þér erud svo margir, og ákallid nú nafn ydar Guds, en leggid ekki eld ad. 26. Og þeir tóku þad nautid sem þeim var feingid, og offrudu því, og ákølludu Baals nafn frá morgni og til middegis, og søgdu: Baal! svara þú oss! en þar var eingin raust og einginn sem svaradi. Og þeir høltrudu kríngum altarid, sem menn høfdu reist. 27. Og um middegid gjørdi Elía gis ad þeim og mælti: kallid hátt, því hann er Gud! hann er (líklega) í þaunkum, eda hann hefir einhvørs ad gjæta, eda hann er á ferd, eda hann er sofnadur, svo ad hann vakni. 28. Og þeir kølludu med hárri rødd og rispudu sig med hnífum og ølum, eptir þeirra sid, þángad til þeim blæddi. 29. En sem middegi var lidid, létu þeir sem ódir menn, allt til þess fórnin skyldi frambérast; en þar var eingin rødd, einginn sem svaradi, og eingin bænheyrsla. 30. Þá sagdi Elía til alls fólksins: gángid nú til mín! og allt fólkid gékk til hans. Og hann reisti aptur Drottins altari, sem nidur hafdi verid rifid. 31. Og Elía tók 12 steina, eptir tølu Jakobssona ættkvísla (til hvørra þetta ord Drottins hafdi komid: þitt nafn skal vera Ísrael c). 32. Og byggdi af steinunum altari í nafni Drottins, og gjørdi grøf allt umkríng altarid, svo vída sem svaradi tveim mælirúm sáds, 33. og hagræddi vidnum, og brit-

V. 18. *a.* Kap. 16, 31. 32. V. 22. *b.* Kap. 19, 10. 2 Kong. 17, 34. V. 27. Hab. 2, 19. V. 31. *c.* Gen. 32, 28. 35, 10.

jadi nautid, og lagdi ofan á vidinn. 34. Og hann mælti: fyllid nú 4 skjólur med vatn og hellid yfir brennifórnina og vidinn. Og hann mælti: gjörid þad aptur! og þeir gjørdu þad í annad sinn, og hann mælti: gjörid þad í þridja sinn; og þeir gjørdu þad í þridja sinn. 35. Og vatnid rann allt í kríngum altarid, og líka fylltu menn grøfina med vatni.

36. En um þad leiti sem matoffur skal framberast, gékk Spámadurinn Elía nær, og mælti: Drottinn Gud Abrahams, Ísaaks og Ísraels a)! í dag verdi opinbert, ad þú ert Gud í Ísrael, og eg þinn þjón, og ad eg hefi gjört alla þessa hluti eptir þínu ordi. 37. Bænheyr mig, Drottinn! bænheyr mig, ad þetta fólk vidurkénni, ad þú, Drottinn! ert Gud, og snú þú svo þeirra hjørtum! 38. Þá féll nidur Drottins eldur b) og eyddi brennifórninni og vidnum og steinunum og jørdinni; og vatnid í grøfinni þurkadi hann upp. 39. En sem allt fólkid sá þad, féllu þeir fram á sín andlit og søgdu: Drottinn, hann er Gud! Drottinn, hann er Gud c)! 40. Og Elía sagdi til þeirra: handtakid Baals Spámenn, einginn þeirra komist undan! Og þeir handtóku þá, og Elía fór med þá til lækjins Kíson, og slátradi þeim þar d).

41. Og Elía sagdi til Akabs: far nú af stad et og drekk, því eg heyri þyt af regni. 42. Og Akab fór ad eta og drekka. Og Elía gékk upp á Karmels hæd, og beigdi sig til jardar, og setti andlitid milli hnjánna. 43. Og hann sagdi vid sinn þénara: gakk þú upp og lít út til sjáfar! Og hann gékk upp, og sást um og mælti: þar er ekkért. Og hinn sagdi: far þú aptur, sjø sinnum e). 44. Og í sjøunda sinn, þá sagdi hann (þénarinn): sjá! lítid ský, svo sem hønd á manni, stígur upp úr sjónum. Þá mælti Elía: far þú nú og seg Akab: spenn fyrir (vagninn) og far af stad, svo regnid ekki nái þér. 45. Og himininn vard dimmur af skýum og vindi, og þar kom mikid regn, og Akab settist á vagninn og fór til Jesreel. 46. Og hønd Drottins kom yfir Elía, og hann girdti sínar lendar, og hljóp fyrir Akab, allt til Jesreel.

## 19. Kapítuli.

### En framar um Elía.

1. Og Akab sagdi Jesabel frá øllu sem Elía hafdi gjørt; hvørsu hann hafdi deydt Spámennina med sverdi. 2. Þá sendi Jesabel sendimann til Elía og lét segja honum: Gudirnir gjøri mér þad og en fremur f), ef eg ekki á morgun gjøri þitt líf jafnt lífi sérhvørs þeirra, nl: Baals Spámanna. 3. En sem hann heyrdi þad, bjóst hann til ferdar og gékk af stad til ad forda lífi sínu, og kom til Bersaba, sem tilheyrir Júda, og lét sinn þénara vera þar eptir; 4. en hann fór eina dagleid út á eydimørkina, kom þar sem var hrísrunni og settist þar undir, og óskadi sér daudans og mælti: nóg er (komid)! tak þú nú Drottinn mitt líf; eg er ekki meiri enn mínir fedur. 5. Og hann lagdi sig fyrir undir hrísrunnanum og sofnadi. Og sjá! eingill snart hann og mælti vid hann: statt upp og et! 6. Og hann leit upp, og sjá! vid høfdalag hans var kaka, bøkud á heitum steinum og vatns krús. Og hann át og drakk og lagdist fyrir aptur. 7. Og Eingill Drottins kom aptur í annad sinn, og snart vid honum og mælti: statt upp og et! því þú átt lánga leid fyrir hendi. 8. Og hann stód upp og át og drakk, og gékk í krapti sømu fædu, 40 daga og 40 nætur g), allt til Guds fjalls Horeb.

V. 36. *a.* Ex. 3, 6. 15. 16. 4, 5. 1 Kron. 29, 18. V. 38. *b.* Lev. 9, 24. 2 Kron. 7, 1. V. 39. c. Sakk. 13, 9. V. 40. *d.* 2 Kóng. 10, 25. V. 43. *e.* 2 Kóng. 5, 10. V. 2. *f.* Kap. 2, 23. 2 Kóng. 6. 31. V. 8. *g.* Ex. 24, 18. 34, 28.

9. Og hann gékk í hellir og var þar um nóttina; og sjá! orð Drottins kom til hans svo látandi: hvað aðhefst þú hér Elía? 10. Og hann mælti: vandlætt hefi eg a) fyrir Drottinn, Guð allsherjar; því Ísraels synir hafa yfirgéfið þinn sáttmála, þín ölturu hafa þeir niðurrifið, og deydt þína Spámenn með sverði og eg er einn eptir orðinn, og þeir sitja um líf mitt. 11. Og hann svaraði: far þú héðan og gakk uppá fjallið fram fyrir Drottinn! og sjá! Drottinn fór fram hjá b) og á undan honum mikill og sterkur stormur, sem sundurtætti fjallið og sundurmolaði klettana — Drottinn var ekki í storminum. 12. Og eptir storminn jarðskjalfti — ekki var Drottinn í jarðskjalftanum. Og eptir jarðskjalftann eldur — ekki var Drottinn í eldinum, en eptir eldinn kom hægur og blíður vindblær c). 13. Og það skéði þá Elía heyrði það, að hann birgði sitt andlit d) með sínum möttli og gékk út fram í hellirs mynnið. Og sjá! kom raust til hans og mælti: hvað aðhefst þú hér Elía? 14. Og hann svaraði: vandlætt hefi eg e) fyrir Drottinn Guð Allsherjar; því Ísraelssynir hafa yfirgéfið þinn sáttmala, þín ölturu hafa þeir niðurrifið, og þína spámenn hafa þeir deydt með sverði, og eg er einn eptir orðinn, og mitt líf umsitja þeir. 15. Og Drottinn sagði við hann: far þú nú sama veg til baka um eyðimörkina f) til Damaskus, og gakk inní staðinn og smyr Hasael til Kóngs yfir Sýrland. 16. En Jehu son Nimsí g) skaltú smyrja til Kóngs yfir Ísrael, og Elísa son Safats frá Abel-Mehola til spámanns í þinn stað. 17. Og það mun ské, að hvör sem kémst undan Hasaels sverði, þann skal Jehu deyða; og hvör sem kémst undan Jehus sverði, þann skal Elísa deyða. 18. Og eg læt eptir verða í Ísrael 7 þúsundir, öll kné sem ekki hafa beigt sig fyrir Baal, og sérhvörn munn sem ekki hefir kyst hann.

19. Svo fór hann þaðan og fann Elísa son Safats þar hann plægði með 12 pörum akneyta, og hann var með tólfta parinu. Þá gékk Elía til hans, og kastaði sínum möttli yfir hann. 20. Þá yfirgaf hann akneytin, og hljóp eptir Elía og mælti: leyfðu mér þó að kyssa föður minn og móður mína h) svo vil eg fara með þér. Og Elía sagði til hans: far þú, kom aptur! því hvað hefi eg þér gjört? 21. Svo gékk hann frá honum aptur, tók eitt par af akneytunum, offraði þeim, og sauð kjötið við okið af akneytunum, og gaf fólkinu það, og þeir snæddu. Eptir það stóð hann upp, fylgdi Elía, og þjónaði honum.

## 20. Kapítuli.

Akab vinnur sigur á Benhadad.

1. En Ben-Hadad Kóngur í Sýrlandi safnaði öllum sínum her, og 32 Kóngar voru með honum og hestar og vagnar; og hann lagði af stað, og settist um Samaríu, og herjaði á hana. 2. Og hann sendi menn til Akabs Kóngs í Ísrael inní staðinn með þessa orðsending: 3. Svo segir Ben-Hadad: þitt silfur og þitt gull er mitt, og þínar konur og þínir synir þeir bestu eru mínir. 4. Og Ísraels Kóngur svaraði og sagði: eins og þú segir, minn herra Konúngur! eg er þinn og allt hvað eg á. 5. Og sendimenn komu aptur og sögðu: svo segir Ben-Hadad: eg hefi sendt þér þessa orðsending: þitt silfur og þitt gull og þínar konur og þína syni skaltu géfa mér, 6. þá eg á morgun um þetta leiti sendi mína þénara til þín, skulu þeir ransaka þín hús og hús þinna

V. 10. *a.* 2 Kóng. 10, 16. V. 11. *b.* Ex. 33, 22. V. 12. *c.* Job. 4, 16. V. 13. *d.* Ex. 3, 6. V. 14. *e.* 2 Kong. 10, 16. Sálminum. 69, 10. V. 15. *f.* 2 Kong. 8, 13. V. 16. *g.* 2 Kong. 9, 2. 3. V. 18. Róm. 11, 4. V. 20. *h.* Lúc. 9, 61.

þénara, og allt, sem þér þikir vænst um, skulu þeir taka og flytja burt. 7. Þá kalladi Ísraels Konúngur alla øldúnga landsins og mælti: kannist þó vid og sjáid ad þessi hefir íllt í sinni; því hann hefir sendt til mín eptir mínum konum og eptir mínum sonum, og eptir mínu silfri og eptir mínu gulli, og eg hefi ekki synjad honum þess. 8. Og øldúngarnir søgdu vid hann og allt fólkid: gégndu þessu ekki, og samþikktu þad ekki! 9. Og hann sagdi vid sendimenn Ben-Hadads: segid mínum herra Konúnginum: allt þad sem þú í fyrstu létst þína sendiboda heimta af þínum þjón, vil eg gjøra; en þetta gét eg ekki gjørt. Og sendimennirnir fóru, og komu med svar. 10. Þá sendi Ben-Hadad til hans og mælti: gudirnir gjøri mér þad og enn fremur a), ef ríkid í Samaría hrøkkur til ad fylla lúkur alls þess fólks sem med mér er! 11. Og Ísraels Konúngur svaradi og mælti: segid: sá sem spennir um sig beltid, hrósi sér ekki eins og sá sem spennir þad af sér.

12. En sem Ben-Hadad fékk þetta ad heyra, (hann var ad drykkju med Kóngunum í landtjøldunum) sagdi hann til sinna þénara: skipid ydur nidur! og þeir bjuggust (til bardaga) móti borginni. 13. Og sjá! spámadur nokkur gékk fyrir Akab, Ísraels Konúng og mælti: svo segir Drottinn: hefir þú sjed allan þenna manngrúa? sjá! í dag géf eg hann í þína hønd, svo þú sjáir ad eg er Drottinn. 14. Og Akab mælti: fyrir hvørra fulltíngi? og hann svaradi: fyrir fulltíngi Landfógétanna sveina. Og hann spurdi: hvør skal byrja orustuna? hinn svaradi: þú. 15. Þá kannadi hann sveina Landfógétanna, og þeir voru 2 hundrud 32. Og eptir þad kannadi hann allt fólkid, alla Ísraelssyni, 7 þúsund manns.

16. Og þeir fóru út um middegi. En Ben-Hadad drakk sig drukkinn í tjøldunum, hann og hans 32 Kóngar, sem komnir voru honum til lids. 17. Og sveinar Landfógétanna fóru fremstir. Þá sendi Ben-Hadad, og menn færdu honum þá fregn, ad menn færu út frá Samaría. 18. Og hann mælti: séu þeir komnir út til fridar, þá handtakid þá lifandi, og séu þeir til stríds útfarnir þá handtakid þá lifandi. 19. En hinir komu frá stadnum, sveinar Landfógétanna, og herinn sem eptir fór. 20. Og þeir unnu hvør á sínum manni, og Sýrlendskir flýdu, og Ísrael elti þá, og Ben-Hadad Sýrlands Konúngur komst undan á hesti med reidmønnum. 21. Og Ísraels Konúngur fór út og vann sigur á reidmanna og vagna lidinu og olli Sýrlendskum mikils mannfalls.

22. Þá gékk spámadurinn fyrir Ísraels Kóng og mælti til hans: nú áfram! vertu røskur, yfirvega þú og sjá, hvad þú verdur ad gjøra; því þegar árid er lidid kémur Sýrlands Konúngur aptur med her þér á hendur. 23. En þénarar Kóngsins í Sýrlandi søgdu vid hann: fjallgudir eru þeirra Gudir; því hafa þeir sigrad oss; en vér skulum berjast vid þá á sléttlendi, og sjá svo hvørt vér høfum ei betur enn þeir. 24. Og gjør þú nú þetta: settu frá vøldum alla Kóngana, og set høfudsmenn í þeirra stad, 25. og safna ødru eins lidi og þad var sem þú mistir, ødrum eins hestum, ødrum eins vøgnum, og látum oss svo berjast vid þá á sléttlendi, og vita hvort vér sigrum þá ekki. Og hann hlýddi þeirra raust og gjørdi svo.

26. Og þegar árid var lidid, kannadi Ben-Hadad Sýrlendska, og fór til Afek til stríds vid Ísrael. 27. Og Ísraels synir voru og kannadir og útbúnir til stríds, og fóru á móti þeim; og Ísraels synir settu herbúdir sínar gagnvart þeim, sem tvær litlar geitfjár hjardir b). En

V. 10. *a.* Kap. 19, 2. 2 Kóng. 6, 31. V. 27. *b.* 1 Makk. 3, 16.

Sýrlendskir uppfylltu landid. 28. Þá gékk gudsmadurinn fram, taladi vid Ísraels Konúng og mælti: svo segir Drottinn: sakir þess ad Sýrlendskir hafa sagt: Drottinn er fjallgud, en ekki dalagud, svo vil eg géfa allan þenna manngrúa í þína hønd, ad þér kannist vid ad eg er Drottinn.

29. Og þeir høfdu herbúdir, hvørjir gagnvart ødrum í 7 daga, og á sjøunda degi geingu þeir í orustu, og Ísraelssynir løgdu ad velli Sýrlendska, hundrad þúsund fótgaungulids á einum degi. 30. Hinir flýdu til Afek inní stadinn, og borgarveggurinn féll á þær eptirordnu 27 þúsundir manns, og Ben-Hadad flýdi og nádi stadnum, og fól sig, í einu herbergi eptir annad. 31. Þá søgdu hans þénarar vid hann: vér høfum heyrt ad Ísraels Konúngar séu nádugir Konúngar; vér skulum leggja sekk um vorar lendar, og snørur um vorn háls, og gánga svo fyrir Ísraels Konúng, líklega lætur hann þig halda lífi. 32. Sídan løgdu þeir sekk um sínar lendar og snørur sér um háls og komu fyrir Ísraels Konúng og mæltu: þinn þjón Ben-Hadad segir: lofa þú mér ad lifa! og hann mælti: lifir hann enn? hann er minn bródir! 33. Og mønnunum þókti þetta góds viti, og flýttu sér ad láta ljóst verda hvør hans meiníng væri, og mæltu: er Ben-Hadad þinn bródir? og hann sagdi: farid og sækid hann! Þá kom Ben-Hadad til hans, og hann lét hann stíga á vagn med sér. 34. Og Ben-Hadad mælti: þá stadi sem fadir minn tók frá fødur þínum vil eg þér aptur géfa, og þú mátt gjøra þér stræti í Damaskus, eins og fadir minn gjørdi sér í Samaríu. Og eg vil, svaradi Akab, láta þig lausann med vissum skilmálum. Og hann gjørdi vid hann sáttmála og lét hann lausann.

35. En madur nokkur af sonum Spámannanna sagdi vid annann mann, eptir Drottins ordi: slá þú mig! og madurinn færdist undan ad slá hann. 36. Þá sagdi hann vid hann: af því þú hlýddir ekki Drottins raust, þá skaltu vita, ad þegar þú geingur frá mér, mun ljón vinna á þér; og sem hann gékk frá honum, mætti honum ljón og drap hann. 37. Og hann hitti annann mann og mælti: slá þú mig! og madurinn sló hann, já, sló og særdi. 38. Þá fór spámadurinn sína leid, og gékk í veg fyrir Konúng og gjørdi sig torkénnilegann, med því ad vefja dúk um augu sér. 39. Og sem Kóngur fór fram hjá, hrópadi hann til Konúngs og mælti: þinn þjón fór í bardaga, þá gékk madur til mín, og færdi mér mann og mælti: geimdu þennann mann! ef hann kémst í burt, þá sé þitt líf fyrir hans líf a), eda þú skalt láta af hendi vætt silfurs. 40. Enn svo fór, ad þegar þinn þjón gékk híngad og þángad, svo var madurinn allur á burt. Og Ísraels Konúngur sagdi til hans: þad er þinn dómur, þú hefir skorid úr málinu. 41. Þá tók (Spámadurinn) ódar dúkinn frá augunum, og Ísraels Konúngur þekkti hann, ad hann var einn af Spámønnunum. 42. Og hann (Spámadurinn) sagdi til hans: svo segir Drottinn: søkum þess þú slepptir þeim manni þér úr hendi sem eg hafdi bannfært, svo skal þitt líf vera fyrir hans líf, og þitt fólk fyrir hans fólk. 43. Og Ísraels Konúngur gékk heim til sín reidur, og lá ílla á honum, og kom til Samaríu.

## 21. Kapituli.

### Sagan um Nabot.

1. Eptir þessa atburdi gétur þess, ad madur nokkurr Jesreelíti, ad nafni Nabot, átti víngard hjá høll Akabs Kóngs í Samaríu. 2. Og Akab kom ad máli vid Nabot og mælti: géf mér þinn víngard, ad hann

V. 39. *a.* 2 Kóng. 10, 24.

verdi minn jurtagardur! því hann er í nánd vid mitt hús, og eg skal géfa þér fyrir hann betri víngard; ef þú villt þad heldur, þá skal eg betala þér í peníngum þad sem hann kostar. 3. En Nabot sagdi vid Akab: Drottinn fordi mér því ad géfa þér erfd minna fedra! 4. Þá kom Akab í sitt hús, og lá illa á honum, hann var og reidur af því sem Nabot Jesreelíti hafdi sagt vid hann: eg géf þér ekki erfd minna fedra. Og hann lagdi sig upp í rúm, snéri sínu andliti undan og nærdist á eingu.

5. Þá kom Jesabel kona hans til hans og taladi vid hann þessum ordum: hví liggur svo ílla á þér, ad þú nærist ekki? 6. Og hann sagdi vid hana: eg taladi vid Jesreelítann Nabot og sagdi vid hann: láttu mig fá þinn víngard, fyrir peninga, eda, ef þú villt, skal eg láta þig fá fyrir hann annann víngard; en hann sagdi: eg læt ekki minn víngard falann vid þig. 7. Þá mælti Jesabel kona hans vid hann: láttu nú sjá ad þú hafir Kóngs vald í Israel! rís upp, et og vertu med gódu gédi! eg skal géfa þér Jesreelítans Nabots víngard. 8. Og hún skrifadi bréf undir Akabs nafni og setti hans innsigli fyrir þad og sendi bréfid til öldúnganna og þeirra göfugustu í hans borg, sem bjuggu hjá Nabot. 9. Og í bréfid skrifadi hún, látid úthrópa föstudag, og setjid Nabot yfir fólkid, 10. og fáid tvo menn til, ílla bófa, honum á móti, ad þeir vitni gégn honum og segi: þú hefir lastad a) Gud og Kónginn; leidid hann svo burt og grýtid hann, ad hann deyi.

11. Og mennirnir í hans borg, þeir eldstu og göfugustu, sem bjuggu í hans borg, gjördu eins og Jesabel baud þeim, einsog skrifad var í þeim bréfum sem hún sendi þeim. 12. Þeir úthrópudu föstu og settu Nabot yfir fólkid. 13. Og þeir tveir menn komu, þeir íllu bófar, og settust gagnvart honum, og þessir vondu menn vitnudu móti Nabot í áheyrn fólksins og sögdu: Nabot hefir lastad Gud og Kónginn. Og þeir leiddu hann út úr borginni og grýttu hann í hel. 14. Eptir þad sendu þeir til Jesabel, og sögdu: Nabot er grýttur og daudur. 15. En er Jesabel heyrdi þad, ad búid væri ad grýta Nabot í hel, sagdi hún vid Akab: reistu þig nú, og kasta þinni eign á Jesreelítans Nabots víngard, sem hann vildi ei láta falann vid þig fyrir peninga; því Nabot lifir nú ekki, heldur er hann daudur. 16. En sem Akab heyrdi ad Nabot væri daudur, tók hann sig til, ad gánga í Jesreelítans Nabots víngard, til ad kasta á hann eign sinni. 17. Þá kom ord Drottins til Elía Tesbiter og mælti: 18. Tak þú þig til, og gakk fyrir Akab Israels Konúng í Samaríu, sjá! hann er í Nabots víngardi, þángad geinginn til ad kasta á hann eign sinni. 19. Og tala þú vid hann og seg: svo segir Drottinn: hefir þú myrdt og tekid med ofríki? tala þú vid hann og seg: svo segir Drottinn: vegna þess ad hundar sleiktu Nabots blód, skulu og svo hundar sleikja þitt blód b). 20. Og Akab sagdi vid Elía: hefir þú fundid mig, þú minn fjandmadur? Og hinn svaradi: eg hefi fundid þig, þvíad þú hefir selt þig til ad adhafast íllt fyrir Drottins augliti. 21. Sjá! eg leidi yfir þig ólukku, eg sópa þinni ætt burt, og uppræti allt kallkyn c) af Akab, þræla og frjálsa í Israel; 22. og gjöri þitt hús, sem hús Jeróbóams sonar Nebats d) og eins og hús Baesa, sonar Ahías e), vegna þeirrar módgunar sem þú hefir módgad mig med, og komid Israel til ad syndga. 23. Og líka taladi Drottinn um Jesabel; og sagdi: hundar skulu eta Jesabel hjá Jesreels múrum. 24. Hvör sem af Akabs ætt

V. 10. *a.* Sbr. v. 13. Job. 2. 9. V. 19. *b.* 22, 38. 2 Kóng. 9, 25. V. 21. *c.* 14, 10. 16, 11. V. 22. *d.* 15, 29. *e.* 16, 3. V. 23. 2 Kóng. 9, 33 — 36.

deyr í stadnum, þann hinn sama skulu hundar eta, og hvør sem deyr útá vídavángi, þann skulu himinsins fuglar eta. 25. (Já, einginn hefir verid einsog Akab sem hefir selt sig til ad gjøra þad sem illt er a) fyrir augsýn Drottins, af því Jesabel kona hans eggjadi hann á þad. 26. Og hann adhafdist mjøg marga vidurstygd, og gékk eptir afgudum, øldúngis eins og Amorítar høfdu gjørt, sem Drottinn hafdi útrekid frá Ísraelssonum).

27. En sem Akab heyrdi þessa rædu, reif hann sín klædi, og lagdi sekk um sínar lendar, og fastadi, og svaf í sekk, og var utan vid sig. 28. Þá kom ord Drottins til Elía Tesbíter og sagdi: 29. hefir þú séd ad Akab audmýkir sig fyrir mér? fyrst hann audmýkir sig fyrir mér, vil eg ei láta ólukkuna koma á hans døgum. Á døgum sonar hans vil eg leida ólukkuna yfir hans hús b).

## 22. Kapítuli.

Akab fellur í bardaga. Jósafat er Kóngur í Júda.

1. Nú lída þrjú ár svo, ad ekki var ófridur milli Sýrlands og Ísraels. 2. En á þridja ári kom Jósafat Júda Kóngur til Kóngsins í Ísrael. 3. Og Ísraels Konúngur sagdi vid sína þénara: vitid þér ad Ramot í Gílead heyrir oss til? og vér høldum kyrru fyrir, og tøkum hana ekki frá Kónginum í Sýrlandi? 4. Og hann mælti vid Jósafat: vilt þú fara med mér ad herja á Ramot í Gílead? Og Jósafat sagdi vid Ísraels Kóng: eg em sem þú, mitt fólk sem þitt fólk, mínir hestar sem þínir hestar. 5. Og Jósafat sagdi vid Ísraels Konúng: spyr þó í dag um Drottins ord! 6. Þá samankalladi Ísraels Konúngur spámennina, hérumbil 4 hundrud manns, og mælti svo til þeirra: á eg ad fara og herja á Ramot í Gílead, eda á eg ad láta svo búid standa? og þeir svørudu: far þú, og herrann mun gefa hana í Kóngsins hønd! 7. Og Jósafat mælti: er hér ekki enn einn Drottins spámadur, ad vér getum látid hann leita fréttar? 8. Og Ísraels Konúngur sagdi vid Jósafat: enn er einn madur hér sem vér gjætum látid spyrja Drottinn fyrir oss; en mér er ílla vid hann, því hann spáir mér aldrei gódu, heldur illu einu, þad er Míka, sonur Jimla. Og Jósafat sagdi: ei skyldi Konúngurinn svo mæla!

9. Þá kalladi Ísraels Kóngur einn af hyrdmønnunum og mælti: kom þú híngad fljótt med Míka, son Jimla! 10. En Ísraels Konúngur og Jósafat, Júda Konúngur, sátu, hvør í sínu hásæti, í Konúngs skrúda, á fløt vid Samaríu borgarhlid, og allir Spámennirnir spádu frammi fyrir þeim. 11. Og Sedekía sonur Knaena hafdi gjørt sér horn úr járni, og mælti: svo segir Drottinn: med þessum skaltu stánga Sýrlendska, þángad til þú eydileggur þá. 12. Og allir Spámennirnir spádu þannig og søgdu: far þú á móti Ramot í Gílead, þér mun lukkast þad, og Drottinn mun gefa hana í Kóngsins hønd.

13. En sendimadurinn sem fór ad kalla Míka, taladi vid hann og mælti: sjá! tal Spámannanna í einu hljódi gédjast Kónginum, láttu nú þitt tal vera sem eins þeirra, og taladu þad sem er gott! 14. Og Míka svaradi: svo sannarlega sem Drottinn lifir, mun eg tala þad sem Drottinn segir mér! 15. Og sem hann kom til Kóngsins, mælti Konúngur til hans: Míka, eigum vid ad fara og herja á Ramot í Gílead, eda eigum vid ad sleppa því? og hann svaradi honum: far þú, þér mun takast þad, og Drottinn mun gefa hana í Kóngsins hønd. 16. Og Kóngur mælti vid hann: hvørsu opt skal eg láta þig sverja c) ad þú segir mér ekki annad enn sannleika í nafni Drottins? 17. Og hann mælti:

V. 25. *a.* Sbr. v. 20. V. 29. *b.* 2 Kóng. 9, 22. 26. V. 4. 2 Kóng. 3, 7. V. 16. *c.* 1 Sam. 3, 17. Matth. 26, 63.

eg sá allan Ísrael tvístradann, eins og saudi sem eingann hirdir hafa, á fjøllunum, og Drottinn sagdi: þessir hafa eingan herra, fari hvør heim til sín í fridi. 18. Þá mælti Ísraels Kóngur vid Jósafat: sagdi eg þér þad ekki? hann spáir mér aungu gódu, heldur illu einu. 19. Og hann (Mika) mælti: heyr þú þá Drottins ord! eg sá Drottinn sitja í sínu hásæti, og allann himinsins her hjá honum standandi til hægri og vinstri handar. 20. Og Drottinn sagdi: hvør vill yfirtala Akab, svo hann fari og falli hjá Ramot í Gilead? og sitt sagdi hvør. 21. Þá kom fram andi a), og gékk fyrir Drottinn, og mælti: eg skal yfirtala hann. Og Drottinn sagdi: hvørnig? 22. Og hann mælti: eg ætla ad fara og vera lyga andi í munni allra hans Spámanna. Og hann sagdi: þú skalt yfirtala hann, og þú munt líka géta þad: far þú og gjør svo! 23. Og sjá nú, Drottinn hefir lagt lyga anda í munn allra þessara þinna Spámanna, og Drottinn hefir illt talad þér til handa.

24. Þá gékk þarad Sedekía sonur Knaena og rak Mika utanundir (snoppúng) og mælti: skyldi Guds andi vera vikinn frá mér til þess ad tala vid þig? 25. Mika svaradi: þú munt sjá þad á þeim degi, þegar þú hleypur hús úr húsi til ad fela þig b). 26. Og Ísraels Kóngur mælti: takid Mika, og færid hann Amon borgmeistara og Jóas Kóngssyni, 27. og skilid þessu: svo seigir Kóngurinn: setjid þenna í myrkvastofu, og veitid honum vesældar braud og vatn, þángad til eg kém lukkulega heim aptur. 28. Og Mika sagdi: ef þú kémur lukkulega heim aptur, svo hefir Drottinn ekki talad í mínum munni; og hann mælti: heyri þad allt fólk!

29. Sídan fóru þeir Ísraels Konúngar og Jósafat Júda Konúngur, til Ramot í Gilead. 30. Og Ísraels Konúngur sagdi vid Jósafat: í dular búníngi vil eg gánga í orustuna; en far þú í þinn búníng! Og svo klæddi Ísraels Konúngur sig í dularbúníng og gékk í bardagann. 31. En Sýrlands Konúngur hafdi bodid og sagt fyrirlidum sinna vagna, sem vóru 32, berjist vid eingan mann, hvørki smáann né stórann, nema vid Ísraels Konúng einann. 32. Og þad skédi, þá vagnlidsforíngjarnir sáu Jósafat, því þeir hugsudu: þad er vissulega Ísraels Kóngur, ad þeir snéru móti honum, til ad berjast vid hann. Þá kalladi Jósafat. 33. Og sem foríngjar vagnlidsins sáu, ad þetta var ekki Ísraels Kóngurinn, hvurfu þeir frá honum.

34. En madur nokkur spennti sinn boga og þad uppá óvissu, og þessi skaut Ísraels Konúng í gégnum hríngabrynjuna. Og hann (Ísraels Kóngur) sagdi vid þann sem stýrdi hans vagni: far þú med mig úr bardaganum, því eg er sár! 35. Og bardaginn vard mikill á þeim degi, og Kóngurinn stód í vagninum móti Sýrlendskum og dó um kvøldid. Og blódid úr sárinu rann nidur í vagninn. 36. En um sólarlag var úthrópad um allar herbúdirnar: fari nú hvør heim til sinnar borgar, og hvør heim í sitt land! 37. Og svona dó Kóngurinn og var fluttur til Samaríu; og menn grófu Kónginn í Samaríu. 38. En sem menn þvodu vagninn vid Samaríu tjørn, þá sleiktu hundar hans blód c). En skjækur þvodu hann, eptir ordi Drottins, sem hann hafdi talad.

39. Hvad meira er ad segja um Akab og allt hvad hann gjørdi, og um þad fílabeins hús, sem hann bygdi, og alla þá stadi sem hann bygdi, þad stendur skrifad í Ísraels Kónga árbókum. 40. Og Akab lagdist hjá sínum fedr=

V. 21. *a.* Es. 19, 14. V. 25. *b.* 20, 30. 2 Kóng. 9, 2. V. 34. 2 Kron. 18, 33. V. 35. 2 Kron. 18, 34. V. 38. *c.* Kap. 21, 29. 2 Kóng. 9, 25.

um, og Ahasía hans son, vard Kóngur í hans stad.
41. En Jósafat sonur Asa, vard Kóngur yf-
ir Júda á 4da ári Akabs, Jsraels Kóngs, 42.
og Jósafat hafdi tvo um þrítugt þá hann
vard Kóngur, og ríkti 25 ár í Jerúsalem.
Módir hans hét Asúba dóttir Silhí. 43. Og
hann gékk á øllum vegum Asa fødur síns, hann
vék þar ekki frá, og hann gjørdi þad sem rétt
var fyrir augsýn Drottins. 44. Þó voru ekki
hædirnar aflagdar; ennþá offradi fólkid og
brendi reykelsi á hædunum. 45. Og Jósafat
hafdi frid vid Jsraels Konúng. 46. Hvad
meira er af Jósafat ad segja og hans hreysti-
verkum, er hann vann, og hvørsu hann her-
jadi, þad stendur skrifad í árbókum Júda Kónga.
47. Þær leyfar af afgudadýrkurum, sem ept-
ir urdu á døgum Asa fødur hans, afmádi hann
úr landinu. 48. Þá var einginn Konúngur í
Edom. Høfudsmadur ríkti þar. 49. Jósafat
lét gjøra kaupskip, sem fara skyldi til Ofír, ad
sækja gull; en þau fóru ekki, því skipin braut
vid Eseon-Geber. 50. Þá sagdi Ahasía Ak-
absson vid Jósafat: lofa þú mínum þénurum
ad fara med þínum á skipunum! en Jósafat
vildi ekki. 51. Og Jósafat lagdist hjá sínum
fedrum, og var grafinn hjá sínum fedrum í
borg Davíds fødur síns, og Jóram sonur hans
vard Kóngur í hans stad.

52. Ahasía, sonur Akabs, vard Konúngur
í Samaría yfir Jsrael, á 17da ári Jósafats
Júda Kóngs, og ríkti 2 ár yfir Jsrael. 53.
Og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn
Drottins, og gékk á vegum fødur síns og mód-
ur sinnar, og á vegum Jeróbóams sonar Ne-
bats, sem hafdi komid Jsrael til ad syndga.
54. Og hann þjónadi Baal og tilbad hann,
og módgadi Drottinn Gud Jsraels, eins og
fadir hans hafdi gjørt.

# Önnur Kónganna Bók.

## 1. Kapítuli.

Ahasía sýkist og deyr.

1. Eptir dauda Akabs gékk Móab undan
Jsrael. 2. Og Ahasía féll nidur um grindur
í loptsal sínum í Samaríu, og vard sjúkur.
Þá sendi hann menn, og sagdi vid þá: farid
og spyrjid Baal-Sebub, gudinn í Ekron, hvørt
eg muni rétta vid úr þessum sjúkdómi. 3. En
eingill Drottins taladi svo vid Elía Tesbíter:
taktu þig til og gakk í veg fyrir sendimenn
Kóngsins í Samaríu, og tala þetta vid þá:
farid þér nú til frétta vid Baal-Sebub, Gud
þeirra í Ekron, af því ad Gud vanti í Jsrael?
4. Því segir Drottinn svo: úr rekkju sem þú
ert nú stíginn í, skaltu ekki komast, heldur skaltu
deya. Og Elía gékk burt. 5. Þá komu sendi-
mennirnir til hans aptur, og hann sagdi vid
þá: því komid þér nú til baka? Og þeir svør-
udu honum: madur kom oss á móti og sagdi
vid oss: farid og snúid heim aptur til Kóngs-
ins sem ydur hefir sendt og segid honum: svo
segir Drottinn: líklega sendir þú til frétta vid

V. 41. Sbr. 15, 24. Þrjú seinustu versin af þessari bók tilheyra þeirri sídari eptir W: h: bibl: en ekki er þad svo í þeirri Hebresku. V. 1. Sbr. 3, 5.

Baal = Sebub Gud í Ekron, af því Gud vant=
ar í Israel? þeſsvegna ſkaltu ekki komaſt úr
þeirri rekkju ſem þú hefir lagſt í, heldur ſkaltu
deya. 7. Og hann ſagdi vid þá: hvørnig
var ſá madur í hátt ſem ydur mætti, og tal=
adi þeſsi ord vid ydur? 8. Og þeir ſvørudu
honum: hann var í feldi úr hárum og girdtur
ledur belti um ſínar lendar. Og hann ſagdi:
þad er Elía Teſbíter. 9. Og hann ſendi til
hans einn høfudsmann ſinn yfir 50, og
hans 50 (med). Og hann kom til hans, og
ſjá! hann ſat á tindi fjallſins; og hann ſagdi
til hans: þú Guds madur, Konúngurinn ſeg=
ir: kom þú nidur! 10. Og Elía ſvaradi,
og ſagdi vid høfudsmanninn yfir 50: og ſé
eg Guds madur, ſvo falli eldur af himni og
tortíni þér og þínum 50. Þá féll eldur af
himni og tortíndi honum og hans 50. 11.
Og hann ſendi aptur høfudsmenn yfir 50,
og hans 50. Og þeſsi byrjadi þannig tal ſitt
vid hann: þú Guds madur, ſvo ſegir Kóng=
urinn: kom ſem ſkjótaſt nidur! 12. Og Elia
ſvaradi og ſagdi vid þá: ſé eg Guds madur
ſvo falli eldur af himni og tortíni þér og þínum
50. Þá féll Guds eldur af himni, og tortíndi
honum og hans 50. 13. Og hann ſendi enn
í þridja ſinn høfudsmann yfir 50 og hans 50
(med). Og høfudsmadurinn yfir 50, ſá þrid=
ji, kom og beigdi ſín kné fyrir Elía, og bad
hann og ſagdi til hans: þú Guds madur, láttu
þó líf mitt og líf þinna þjóna, þeſsara 50,
vera dýrmætt í þínum augum! 14. Sjá!
eldur er fallinn af himni, og hefir tortínt báð=
um høfudsmønnunum yfir 50 og þeirra 50;
en nú ſé mitt líf dýrmætt í þínum augum! 15.
Og Eingill Drottins ſagdi vid Elía: far þú
med honum! þú ſkalt ekki hrædaſt hann! þá
tók hann ſig til og fór med honum til Kóngſins.
16. Og hann taladi vid hann: ſvo ſegir
Drottinn: af því þú ſendir menn til frétta vid
Baal = Sebub, Gudinn í Ekron — líklega af
því Gud er ekki til í Israel — til ad ſpyrja,
þeſs vegna ſkaltu ekki komaſt úr rekkju aptur
ſem þú ert lagſtur í, heldur ſkaltu deya. 17.
Og hann dó eptir ordi Drottins ſem Elía hafdi
talad. Jóram vard Kóngur í hans ſtad, á
ødru ári Jórams Jóſafats ſonar, Kóngs í
Júda; því hann átti eingann ſon. 18. En
hvad meira er ad ſegja um Ahaſía, hvad hann
gjørdi, þad ſtendur ſkrifad í árbókum Israels
Kónga.

## 2. Kapituli.

Elía uppnuminn. Eliſa gjørir kraptaverk.

1. Og þad ſkédi, þá Drottinn vildi taka
Elía í ſtormvidri til himins, geingu þeir Elía
og Eliſa frá Gilgal. 2. Og Elía ſagdi vid
Eliſa: vertu hér eptir! því Drottinn ſendir mig
til Betel. Og Eliſa ſvaradi: ſvo ſannarlega
ſem Drottinn lifir og þú lifir, eg ſkil ekki vid
þig! og ſvo geingu þeir til Betel. 3. Þá
komu ſynir ſpámannanna, ſem voru í Betel,
út á móti Eliſa og ſøgdu vid hann: veitſtu
þad, ad nú í dag tekur Drottinn þinn herra
upp frá þínu høfdi! hann ſvaradi: eg veit
þad, verid hljódir! 4. Og Elía ſagdi til
hans: vert þú hér eptir, Eliſa! því Drottinn
ſendir mig til Jeríkó. Og hann mælti: ſvo
ſannarlega ſem Drottinn lifir og þú lifir, eg
ſkil ekki vid þig! og ſvo komu þeir til Jeríkó.
5. Þá geingu ſynir ſpámannanna ſem voru í
Jeríkó til Eliſa og ſøgdu vid hann: veitſtu þad,
ad Drottinn tekur í dag þinn herra upp frá
þínu høfdi? og hann ſvaradi: eg veit þad líka,
verid hljódir! 6. Og Elía ſagdi vid hann:
vertu hér eptir! því Drottinn ſendir mig til
Jórdan. Og hann ſvaradi: ſvo ſannarlega
ſem Drottinn lifir og þú lifir, eg ſkilſt ekki
vid þig! og ſvo geingu þeir hvør med ødrum;
7. En 50 menn af ſonum ſpámannanna geingu
med þeim, og geingu gagnvart þeim lángt frá,

og hinir bádir geingu ad Jórdan. 8. Þá
tók Elía sinn møttul og braut hann saman og
sló á vatnid og þad skipti sér a) til tveggja
hlida, og þeir geingu bádir yfirum á þurru.
9. En er þeir voru komnir yfrum, sagdi Elía
vid Elísa: bid þú einhvørs, er eg veiti þér ád-
urenn eg verd frá þér numinn! Og Elísa mælti:
(eg bid þess) ad tveir partar af þínum anda
megi til mín koma! 10. Og Elía svaradi: þú
hefir bedid þess sem er torveldt; efad þú samt
sjer mig, þá eg verd frá þér numinn, þá mun
þér þetta veitast; en sjáir þú mig ekki, svo
mun þad ekki ské. 11. En sem þeir geingu og
tøludust vid á gánginum, sjá! þá var þar eld-
legur vagn og eldlegir hestar, sem adskildu þá;
og Elía fór í stormvidrinu upp til himins.
12. En Elísa sá þad og kalladi: minn fadir!
minn fadir! Ísraels vagn og hans reidmad-
ur! og hann sá hann ekki framar. Þá þreif
hann til sinna klæda og reif þau sundur í tvo
hluti. 13. Og hann tók upp møttul Elía,
sem dottid hafdi frá honum, og snéri vid og
kom á Jórdans bakka. 14. Og hann tók Elía
møttul, sem fallid hafdi frá honum og sló á
vatnid og mælti: hvar er Drottinn, Gud Elía?
og sem hann sló á vatnid, skipti þad sér til
tveggja hlida, og Elísa fór yfirum.

15. Og þá synir spámannanna sáu til hans,
þeir sem voru í Jerikó gagnvart, søgdu þeir:
Elía andi hvílir yfir Elísa. Og þeir komu á
móti honum, og hneigdu sig til jardar fyrir
honum. 16. Og þeir søgdu vid hann: heyr
þú! medal þinna þjóna eru 50 røskir menn,
þeir meiga fara og leita ad þínum herra,
einasta ad Andi Drottins hafi ekki tekid hann
og varpad honum á eitthvørt fjallid eda í ein-
hvørn dalinn. Og hann mælti: sendid ekki!
17. En þeir neyddu hann ákaflega. Þá sagdi
hann: sendid þér! og þeir sendu 50 manns,
sem leitudu hans í þrjá daga; en þeir fundu
hann ekki. 18. Og þeir komu til hans apt-
ur, en hann dvaldi í Jerikó, og hann sagdi til
þeirra: hefi eg ekki sagt ydur: farid hvørgi?

19. Og borgarmennirnir søgdu vid Elísa:
gott er í þessum stad ad búa, eins og minn
herra sjer; en vatnid er slæmt b), og í landinu
er tídur ótímaburdur. 20. Þá mælti hann:
færid mér nýa skál, og látid í hana salt.
Og þeir færdu honum hana. 21. Og hann
gékk ad uppsprettu vatnsins, og kastadi saltinu í
hana og mælti: svo segir Drottinn: eg gjøri
vatn þetta heilnæmt, hér eptir mun því eingin
daudi né ótímaburdur af því koma. 22. Þá
vard vatnid heilnæmt, allt til þessa dags, ept-
ir því ordi Elísa, sem hann hafdi talad.

23. Og hann gékk þadan til Betel; en sem
hann gékk áfram veginn, komu smásveinar
(strákar) úr stadnum og køstudu í hann stein-
um, hæddu hann og søgdu: kom híngad, skalli!
kom híngad, skalli! 24. Og hann snérist vid
þeim, og er hann sá þá formælti hann þeim í
nafni Drottins. Þá komu tveir birnir úr
skóginum sem rifu í hel 42 af þeim. 25.
Og hann fór þadan til fjallsins Karmel c),
og þadan snéri hann til Samaría.

## 3. Kapítuli.

### Stríd vid Móabíta.

1. En Jóram sonur Akabs vard Kóníng-
ur í Samaríu yfir Ísrael á 18da ári Jósafats
Kóngs í Júda, og ríkti 12 ár. 2. Og hann
gjørdi þad sem íllt var í Drottins augsýn, þó
ekki einsog fadir hans og módir hans; hann
tók burt Baals stólpa sem fadir hans hafdi
reist. 3. En vid syndir Jeróbóams, sonar Ne-
bats, sem kom Ísrael til ad syndga, hékk hann

V. 8. *a* Ex. 14, 21. Jós. 3, 16. V. 9. Tveir partar etc. adrir leggja út: ad þinn andi tvofaldist hjá mér. V. 19. *b.* Ex. 15, 23. c. V. 25. *d.* 4, 25. V. 3. Sbr. 15, 24. 28.

fastlega, og lét ekki af þeim. 4. En Mesa Móabíta Konúngur hafdi miklar hjardir, hann greiddi Israels Konúngi í skatt hundrad þúsund lømb og hundrad þúsund hrúta í alull. 5. En sem Akab dó, gékk Móabs Konúngur undan Israels Kóngi. 6. Um þá daga fór Jóram Kóngur frá Samaríu, og kannadi allann Israel, 7. og hann sendi til Jósafats Kóngs í Júda og sagdi: Móabs Konúngur er undan mér geinginn; viltu herja med mér á Móab? og hann svaradi: eg vil fara med, eg sem þú, mitt fólk sem þitt fólk, mínir hestar sem þínir hestar a). 8. Og hann sagdi: hvørn veg eigum vid ad fara? hinn svaradi: veginn um Edoms eydimørk. 9. Og svo fóru af stad Israels Konúngur og Júda Konúngur, og Kóngurinn af Edom; og er þeir høfdu farid 7 dagleidir, vantadi vatn fyrir herinn og fyrir fénadinn sem med var. 10. Þá sagdi Israels Kóngur: æ! Drottinn hefir kallad þessa þrjá Kónga til ad selja þá í hønd Móabs Kóngi! 11. Þá mælti Jósafat: er hér einginn af Drottins Spámønnum, ad vér gétum látid hann adspyrja Drottinn? Og einn af þénurum Israels Kóngs svaradi, og mælti: hér er Elísa sonur Safats, sem hellt hefir vatni á hendur Elía. 12. Og Jósafat sagdi: hjá honum er ord Drottins! og svo geingu þeir til hans, Israels Kóngur og Jósafat og Kóngurinn af Edom.

13. En Elísa sagdi vid Israels Kóng: (vid þig er mér ekki vandt), hvad hefi eg med þig ad sýsla? gakk þú til Spámanna fødur þíns og til Spámanna módur þinnar! og Israels Kóngur svaradi honum: ekki ad tarna! því Drottinn hefir géfid þessa þrjá Kónga í Móabs hønd. 14. Og Elísa mælti: svo sannarlega sem Drottinn herskaranna lifir, fyrir hvørjum eg stend! gjæfi eg ekki gaum Jósafat Júda Kóngi, skyldi eg ekki renna til þín auga, né akta þig. 15. Og sækid mér nú hørpuslagara b). En sem hørpuslagarinn sló hørpuna, kom Drottins hønd yfir hann, 16. og hann mælti: svo segir Drottinn: gjørid í þessum dal grøf vid grøf. 17. Því svo segir Drottinn: þér munud eingann vind sjá, og ekkért regn sjá, og þessi dalur mun verda fullur af vatni, ad þér drekkid, þér og ydar hópar, og ydar fénadur. 18. Og þetta þykir Drottni oflítid, hann mun og géfa Móab í ydar hønd. 19. Og þér munud vinna allar fastar borgir, og alla útvalda stadi, og øll gód tré munud þér fella og allar vatnsuppsprettur stífla, og alla bestu akrana skémma med grjóti. 20. Og þad skédi um morguninn, um þad leiti sem fórn er framborin, sjá! þá kom vatn frá Edomslandi og landid vard fullt af vatni.

21. En er allir Móabítar heyrdu ad Kóngarnir væru farnir leidángur á móti sér, var øllum vopnfærum og þadanaf eldri samanstefnt, og þeir stadnæmdust á landamerkjunum. 22. En er þeir stódu upp árdegis um morguninn og sólin skein á vatnid, sáu Móabítar áleingdar ad vatnid var raudt sem blód. 23. Og þeir søgdu: þad er blód; Kóngarnir hafa tortínt hvør ødrum, og hvør hefir unnid á ødrum; nú er ad taka herfángid, Móab! 24. En sem þeir komu til Israels herbúda, reis Israel upp og bardist vid Móabíta, en þeir flýdu fyrir þeim, og (Israel) kom inní landid, og sigradi Móab. 25. Og stadina eydiløgdu þeir, og á alla þá bestu akra køstudu þeir sínum steininum hvør, og fylltu þá (med grjóti), og allar vatnsuppsprettur stífludu þeir, og øll gód tré feldu þeir, ad eins létu menn eptir vera steina stadarins í Kir-Hareset c). Og slaungu

V. 7, a. 1 Kóng. 22, 4. V. 11. Hellt hefir vatni ɔ: hefir verid hans þjón. V. 13. Ekki ad tarna; mein: láttu ekki, þegar svo mikid er í húfi, líf þriggja Kónga, þetta irkja. V. 15. b. 1 Sam. 16, 16. V. 25. c. Es. 16, 7.

mennirnir umkríngdu stadinn og köstudu á hann.
26. En er Móabs Kóngur sá ad strídid var
honum erfidt, tók hann 7 hundrud manns med
sér, sem riktu sverdi, til ad brjótast út þar sem
fyrir var Kóngurinn af Edom; en þeir gátu
þad ekki. 27. Þá tók Kóngurinn sinn frum-
gétinn son, sem átti ad verda Kóngur eptir
hann, og offradi honum sem brennifórn á múrn-
um. Þá vard Ísrael mikid reidur og þeir
fóru burt frá honum, og snéru aptur heim í
sitt land.

## 4. Kapituli.

*Elísa gjörir kraptaverk.*

1. En kona nokkur, af ektakvinnum spá-
manna sonanna, hrópadi til Elísa og mælti:
þinn þjón, madurinn minn, er dáinn, og þú
veitst ad þinn þjón óttadist Drottinn; nú er
sá kominn er á hjá oss skuld, til ad taka bædi
mín börn í þrældóm. 2. Og Elísa sagdi vid
hana: hvad á eg ad gjöra fyrir þig? seg mér,
hvad hefir þú í þínu húsi? og hún svaradi:
þín ambátt hefir ekkért í húsinu nema eina vid-
smjörs krús. 3. Og hann mælti: far þú þá
og fá til láns ílát hjá öllum nágrönnum þín-
um, tóm ílát, tak þú fleiri enn færri! 4. Og
gakk svo inn og læstu dyrunum eptir þér, og
eptir sonum þínum og helltu í öll þessi ílát,
og jafnódum og þau fyllast, þá set þau frá
þér. 5. Svo gékk hún frá honum og læsti dyr-
um ad sér og ad sonum sínum; þeir báru ad
henni ílátin, en hún hellti í. 6. En sem ílátin
voru full, sagdi hún vid son sinn: fær mér enn
ílát! og hann mælti: hér eru ekki fleiri ílát.
Þá rann ekki vidsmjörid. 7. Og hún fór og
sagdi Gudsmanninum frá, og hann mælti: far
þú nú og sel vidsmjörid og gjald skuld þína,
en haf þér og sonum þínum til vidurlífis af-
gánginn.

8. Þad bar til einn dag ad Elísa gékk til
Súnem a), þar var göfug kona, sem sárbad
hann ad þiggja mat hjá sér; og svo opt sem
hann fór þar um, gékk hann þar inn til ad
matast. 9. Og hún sagdi vid mann sinn:
heyrdu! eg sje ad þad er heilagur Gudsmad-
ur sem hér fer um jafnadarlega. 10. Látum
oss gjöra honum lítid herbergi hérna uppá loft-
inu afþiljad (med veggjum) og setja þángad
rúm og bord og stól og ljósastjaka, svo hann
géti farid þángad þegar hann kémur til okkar.
11. Einhvörju sinni kom hann þar og gékk
inní herbergid og svaf þar. 12. Og hann sagdi
vid svein sinn Gihesi: kalladu á þá Sunamí-
tisku! og hann kalladi hana og hún gékk fyrir
hann. 13. Og hann sagdi vid hann: seg þú
til hennar: þú hefir sýnt oss allan þenna gód-
vilja, hvad á eg ad gjöra fyrir þig? Hefir
þú nokkud ad tala vid Kónginn eda herforingann?
Og hún svaradi: eg bý hér medal minna ætt-
íngja! 14. Og hann mælti: hvad á eg þá ad
gjöra fyrir hana? Og Gihesi mælti: jú, hún
á eingann son, en madur hennar er gamall.
15. Og hann sagdi: kalla þú á hana; og hann
kalladi á hana, og hún nam stadar í dyrunum.
16. Og Elísa sagdi vid hana: ad ári um þetta
leiti b) muntu fadma ad þér son. Og hún svar-
adi: nei, minn herra, þú Gudsmadur, skrökvadu
ekki ad þinni ambátt.

17. Og konan vard þúngud og fæddi son
um sama bil á næsta ári sem Elísa hafdi henni
sagt. 18. Og barnid óx upp, og þad skédi
einhvörn dag, ad dreingurinn gékk út til födur
síns, til kornskurdar mannanna. 19. Þá sagdi
hann vid födur sinn: mitt höfud! mitt höfud!
og hann sagdi vid svein sinn: far þú med hann
til módur sinnar! 20. Og hann tók hann
og færdi hann módur sinni, og hann sat í
hennar kjöltu til middegis, þá dó hann. 21.
Og hún gékk upp (á loptid) og lagdi hann í

V. 8. *a.* Jós. 19, 18. V. 16. *b.* Gen. 18, 14.

sæng Gudsmannsins, læsti að honum og gékk burt. 22. Og hún gjørdi bod manni sínum svo látandi: sendu mér einn af sveinunum og øsnu, eg vil fara sem skjótast til fundar vid Gudsmanninn og koma svo aptur. 23. Hann svaradi: því villtu fara til hans í dag, nú er hvørki túnglkomu — né hvíldar — dagur? og hún mælti: vert þú sæll! (ad eins rólegur!) 24. Og hún sødladi øsnuna og sagdi vid sveininn: halltu nú áfram, tefdu ekki reid mína, mundu hvad eg segi þér. 25. Og svo fór hún og kom til Gudsmannsins á fjallinu Karmel a). En sem Gudsmadurinn sá hana álengdar, sagdi hann vid Gihesí sinn þénara: sko! þarna er sú Sunamítiska! 26. Hlauptu nú á móti henni, og spurdu hana: lídur þér vel, lídur þínum manni vel, lídur þínu barni vel? og hún svaradi: vel! 27. Og hún kom til Gudsmannsins á fjallinu og greip um hans fætur. Þá gékk Gihesí ad og vildi hrinda henni frá; en Gudsmadurinn mælti: láttu hana vera, því hennar sál er harmþrúngin b); og Drottinn hefir leynt mig því, og ekki látid mig vita það. 28. Og hann mælti: hefi eg bedid minn herra um son? sagdi eg ekki: prettadu mig ekki? 29. Og hann sagdi vid Gihesí gird þínar lendar c), og taktu minn staf þér í hønd og farðu á stad! þó einhvør mæti þér, þá heilsadu honum ekki d), og þó einhvør heilsi þér, þá taktu ekki undir vid hann, og legg minn staf yfir sveinsins andlit. 30. Og módir dreingsins mælti: svo sannarlega sem Drottinn lifir og þú lifir, eg fer ekki frá þér. Þá tók hann sig til og fór med henni. 31. En Gihesí var farinn á undan þeim og hafdi lagt stafinn yfir andlit sveinsins, en þar var hvørki mál né heyrn. Og hann fór til baka á móti honum, og sagdi honum frá og mælti: ekki vaknar sveinninn. 32. Og sem Elísa kom í húsid, þá var piltúrinn dáinn og hafdi verid lagdur í hans sæng. 33. Þá gékk hann inn og læsti ad sér og þeim bádum og bad Drottinn. 34. Svo steig hann upp og lagdist yfir barnid e), lagdi sinn munn vid þess munn, og sín augu yfir þess augu, og sínar hendur yfir þess hendur, og beigdi sig yfir það, svo ad líkami barnsins hitnadi. 35. Og hann kom aptur og gékk um gólf í húsinu, gékk aptur uppá loptid og beigdi sig yfir barnid, þá hnerradi sveininn 7 sinnum. 36. Og hann kalladi á Gihesí og mælti: segdu þeirri Sunamítisku ad koma! og hann kalladi hana, og hún kom til hans, og hann mælti: taktu vid syni þínum! 37. Þá kom hún og féll honum til fóta og beigdi sig til jardar, tók vid syni sínum og fór burt.

38. En Elísa kom aptur til Gilgal f), og sultur var í landinu, og spámannanna synir voru þar fyrir hans augsýn. Og hann sagdi vid þjón sinn: settu upp stóra pottinn og gjørdu graut fyrir syni spámannanna. 39. Þá gékk einn útá akurinn ad lesa jurtir og fann villi vínvidar ánga, og tíndi kyrtil sinn fullan af villi agúrkum, og kom og britjadi þær í grautarpottinn, því þeir vissu ei hvad það var. 40. Og þeir jusu það upp fyrir mennina ad eta, en svo fór þegar þeir smøkkudu grautinn, ad þeir hljódudu upp yfir sig og søgdu: daudinn er í pottinum, þú Gudsmadur! og þeir gátu ei etid það. 41. Þá mælti hann: komid þá med mél, og hann kastadi því í pottinn og mælti: ausid nú fyrir fólkid ad það eti. Og þá var ekkért slæmt í pottinum.

42. En madur kom frá Baal-Salísa og færdi Gudsmanninum frumgróda braud g), 20 byggbraud, og mulid korn, í sínum poka. Og hann mælti: géfdu það fólkinu, ad það eti.

V. 25. *a.* 2, 25. V. 27. *b.* 1 Sam. 1, 10. V. 29. *c.* 9, 1. *d.* Lúk. 10, 4. V. 34. *e.* 1 Kóng. 17, 21. Post. g. b. 20, 10. V. 38. *f.* 2, 1. V. 42. *g.* Lev. 2, 14.

43. Og hans þénari sagdi: hvørnig gét eg borid þetta hundrad mønnum? og hann svaradi: géf þad fólkinu, ad þeir eti! því svo segir Drottinn: menn munu eta og leifa. 44. Þá lagdi hann þad fyrir þá, og þeir neyttu, og geingu frá leifdu, eptir Drottins ordi.

## 5. Kapítuli.

Enn þá um Elísa.

1. En Naaman, hershøfdíngi Sýrlands Konúngs, var í miklum metum hjá sínum herra og nafnkéndur madur; því Drottinn gaf Sýrlendskum sigur fyrir hans dugnad; og madurinn var hetja en holdsveikur. 2. Og Sýrlendskir høfdu farid herfør í smáflokkum og hertekid í Ísraels landi únga stúlku, sem þjónadi konu Naamans. 3. Hún sagdi vid húsmódur sína: æ! ad húsbóndi minn væri kominn til spámannsins í Samaríu, þá mundi hann frelsa hann frá hans holdsveiki. 4. Þá gékk hann (Naaman) fyrir sinn herra og sagdi honum frá þannig: svo og svo hefir stúlkan talad, sú úr Ísraels landi. 5. Og Sýrlands Konúngur sagdi: legg þú af stad! eg skal senda bréf Ísraels Konúngi. Og hann fór, og tók med sér 10 vættir silfurs og 6 þúsund sikla gulls, og 10 hátída klædi. 6. Og hann fór med bréf til Ísraels Konúngs sem svo hljódadi: Og nú þegar þetta bréf kémur til þín, sjá! þá sendi eg þér Naaman minn þjón, ad þú frelsir hann frá hans holdsveiki. 7. En sem Ísraels Konúngur hafdi lesid bréfid, reif hann sín klædi, og mælti: er eg Gud a), ad eg géti deydt og lífgad, ad hann sendir til mín til ad frelsa manninn frá hans holdsveiki? takid þó eptir og sjáid, ad hann leitar saka vid mig b)!

8. En er Gudsmadurinn Elísa heyrdi, ad Konúngurinn hefdi rifid sín klædi, sendi hann til Kóngsins og mælti: því hefir þú rifid þín klædi? komi hann til mín, og kannist vid, ad spámadur er í Ísrael. 9. Og svo kom Naaman med hestum og vøgnum ad Elísa húsdyrum og nam þar stadar. 10. Og Elísa sendi honum þessi bod: far þú og lauga þig 7 sinnum í Jórdan, svo mun hold þitt komast í samt lag aptur, og þú munt verda hreinn. 11. Þá vard Naaman reidur og fór burt og mælti: eg hugdi ad hann mundi koma út til mín, gánga ad mér, og ákalla nafn Drottins síns Guds, fara høndum um þann stad (sem veikur er) og þannig koma burt holdsveikinni. 12. Eru ekki fljótin í Damaskus, Amana og Farfar betri enn øll vøtn í Ísrael? gét eg ekki laugad mig í þeim ad eg verdi hreinn? og hann snérist til ferdar og fór af stad í reidi sinni. 13. Þá geingu þjónar hans til hans, og tøludu vid hann og mæltu: minn fadir! ef spámadurinn hefdi skipad þér eitthvad torveldt, mundir þú ekki hafa gjørt þad? hvørsu þá miklu heldur, er hann ad eins sagdi: lauga þú þig, svo ertu hreinn! 14. Þá fór hann til, og dífdi sér 7 sinnum nidur í Jórdan eptir ordi Gudsmannsins; og hans hold var aptur eins og únglíngs hold og hann vard hreinn.

15. Þá hvarf hann aptur til Gudsmannsins, hann og allur hans flokkur, og kom og gékk fyrir hann og mælti: heyr nu! eg hefi vidurkénnt ad einginn Gud er á allri jørdinni nema í Ísrael; og þigg þú nú gáfu af þínum þjóni. 16. Og hinn svaradi: svo sannarlega sem Drottinn lifir fyrir hvørjum eg stend, eg tek vid eingu! og hann lagdi ad honum ad taka vid, en Elísa færdist undan. 17. Og Naaman mælti: veri samt þjóni þínum leyfilegt ad þiggja klifjar tveggja múlasna af þessari (jørd) mold! því ekki mun þinn þénari hér eptir, færa ødrum gudum brennifórnir og sláturs fórnir, heldur Drottni. 18.

V. 7. *a.* 5 Mós. 32, 39. *b.* 1 Kóng. 20, 7. V. 17. Þessari mold. Eitl. gulli og silfri.

Það eina verður Drottinn að fyrirgéfa þínum þjóni, þegar minn herra geingur í Rimmons hús, til þess þar að biðjast fyrir, og styðst við mína hönd, og eg þá biðst fyrir í Rimmons húsi; þegar eg þá líka biðst fyrir í Rimmons húsi, svo vilda eg Drottinn fyrirgjæfi það þínum þénara. 19. Og hann sagði til hans: far þú í friði. Og hann fór í burtu frá honum svo sem eina mílu vegar.

20. Þá þeinkti Gíhesí, þénari Elísa guðsmannsins: sjá! minn herra hefir vægt Naaman þeim Sýrlendska, og ekki tekið við neinu, sem hann kom með, af hans hendi; svo sannarlega sem Drottinn lifir, eg skal hlaupa eptir honum, og þiggja eitthvað af honum. 21. Og Gíhesí rann eptir Naaman hið skjótasta. Og sem Naaman sá mann hlaupa eptir sér, stökk hann af vagninum, og kom á móti honum, og mælti: geingur nokkuð að? 22. Og hinn svaraði: ekkért geingur að! en herra minn gjörir þér þessa orðsendíngu: sjá! einmitt nú komu til mín tveir úngir menn frá Efraims fjöllum, af sonum Spámannanna: géfðu þeim 1 vætt silfurs og tvennan hátíða klæðnað. 23. Og Naaman sagði: vertu svo góður að þiggja 2 vættir, og hann lagði að honum, og batt tvær vættir silfurs í tveimur sekkjum, og tvenn hátíða klæði, og fékk það tveimur sínum þénurum, að þeir bæru það fyrir honum. 24. En sem hann kom á hæðina, tók hann við þessu úr þeirra höndum, og geymdi þar í húsi, og lét mennina frá sér, og fóru þeir sína leið. 25. En hann kom heim og gékk fyrir sinn herra. Þá sagði Elísa við hann: hvaðan kémur þú Gíhesí? og hann svaraði: þinn þjón hefir ekkért farið. 26. Og hann sagði við hann: mitt hjarta var ei að heiman farið, þegar maðurinn gékk úr sínum vagni móti þér. Er nú tími til að taka við silfri og klæðum, olíuvið og víngörðum og sauðum og nautum, og þrælum og ambáttum? 27. Svo festist nú Naamans holdsveiki við þig og þína ætt að eilífu! og hann gékk út frá honum hvítur sem snjór af holdsveiki a).

## 6. Kapítuli.

*Sama efni. Stríð við Sýrlendska.*

1. Og Spámannanna synir sögðu við Elísa: sjá! sá staður sem vér búum á hjá þér, er oss of þraungur. 2. Látum oss fara til Jórdan og sækja þángað sinn bjálkann hvör, og byggja oss hér stað til að búa í. Og hann svaraði: farið! 3. Og einn af þeim mælti: lát þér og þóknast að gánga með þínum þjónum! og hann sagði: eg skal gánga með. 4. Svo gékk hann með þeim, og þeir komu til Jórdan og hjuggu trén. 5. Og það vildi til, þegar einn af þeim var að fella (bjálka) tré, hraut öxin útí ána, og hann hljóðaði upp yfir sig og mælti: æ minn herra! og hún var léð! 6. Þá mælti guðsmaðurinn: hvar datt hún? Og sem hann vísaði honum á staðinn, sneið hann af tré og kastaði þángað og lét járnið fljóta. 7. Og hann mælti: taktu hana nú! og hann útrétti sína hönd og tók hana.

8. En Sýrlands Konúngur fór leiðángur móti Ísrael, og ráðfærði sig við sína menn og mælti: þar og þar mun eg setja mínar herbúðir. 9. Þá sendi guðsmaðurinn til Ísraels Kóngs og mælti: gjættu þín, að þú ekki afrækir þessa staði, því þángað ætla Sýrlendskir að halda. 10. Og Ísraels Konúngur sendi á þenna stað, sem guðsmaðurinn hafði við hann nefnt, og géfið aðvörun um, að hann gjætti sín þar. Og þetta skéði ekki einusinni eða tvisvar sinnum. 11. Utaf þessu varð Sýr-

V. 26. Mitt hjarta etc: meiningin: Eg var með sjálfum mér þegar eg varð þess var að Naaman gékk á móti þér.
V. 27. *a.* Ex. 4, 6. Núm. 12, 10.

lands Kóngur ángurvær og kalladi sína menn
og mælti vid þá: gétid þér ekki sagt mér hvør
af vorum mønnum muni (halda) med Israels
Konúngi. 12. Þá sagdi einn af hans mønnum:
því er ekki svo varid, minn herra Konúngur!
heldur kunngjørir Spámadurinn Elísa Israels
Konúngi þau ord, sem þú talar í þínu svefn-
herbergi. 13. Og hann mælti: farid nú og
vitid hvar hann er, ad eg géti sendt og látid
sækja hann. Og menn færdu honum þá fregn
og søgdu: hann er í Dotan.

14. Þá sendi hann hesta og vagna og mik-
inn her, og þeir komu um nótt og umkríngdu
stadinn. 15. Og snemma um morguninn, þeg-
ar þjón gudsmannsins var kominn á fætur
og gékk út, sjá! þá umkríngdi her, stadinn,
og hestar og vagnar. Og sveinninn sagdi vid
hann: æ! minn herra! hvørnig førum vid nú
ad? 16. Hann svaradi: vertu óhræddur! því
fleiri eru med okkur enn med þeim. 17. Og
Elísa bad og mælti: Drottinn opna hans augu
ad hann sjái! þá opnadi Drottinn augu sveins-
ins, og hann litadist um, og sjá! fjallid var
alþakid af eldlegum hestum a) og vøgnum b)
allt í kríngum Elísa.

18. Og þeir komu nidur til hans og Elísa
bad til Drottins og mælti: slá þetta fólk med
blindni! þá sló hann þad med blindni, eptir
Elísa ordi. 19. Og Elísa sagdi vid þá: ekki
er þetta vegurinn, og ekki er þetta stadurinn;
komid med mér, eg skal fylgja ydur til manns-
ins, sem þér leitid ad. Og hann fór med þá
til Samaríu. 20. En sem þeir komu til Sam-
aríu, mælti Elísa: opna nú þessara augu, ad
þeir sjái! þá opnadi Drottinn þeirra augu, og
þeir sáu, og sjá! þeir voru midt í Samaríu.
21. Og Israels Kóngur sagdi vid Elísa, þeg-
ar hann sá þá: skal eg vinna á þeim, skal eg,
minn fadir? 22. Og hann svaradi: ekki skalt
þú vinna á þeim. Þú vinnur á þeim sem þú
hertekur med þínum boga og sverdi. Set þú
fyrir þá braud og vatn, ad þeir eti og drekki c),
og fari svo til síns herra. 23. Þá bjó hann
þeim mikla máltíd, og þeir átu og drukku, og
hann lét þá frá sér, og þeir fóru til síns herra.
Og ránsflokkar Sýrlendskra komu ekki eptir
þad í Israelsland.

24. Þareptir skédi þad, ad Ben-Hadad
Sýrlands Konúngur safnadi øllum sínum her,
fór leidángur, og settist um Samaríu. 25. Og
þar vard mikid húngur í Samaríu, og sjá!
þeir umsátu hana, þángad til asnahøfud kostadi
80 sikla silfurs, og fjórdi partur af kad med
dúfna drit, 5 sikla. 26. En svo bar til, ad
þegar Israels Kóngur gékk uppá borgarvegg-
inn, hrópadi kona nokkur til hans og mælti:
hjálpa þú, minn herra Konúngur! 27. Og
hann mælti: hjálpi Drottinn þér ekki, hvørnig
gét eg hjálpad þér? úr hlødunni eda vínkjall-
aranum? 28. Og Kóngurinn mælti til hennar:
hvad geingur ad þér? og hún sagdi: konan
þarna sagdi vid mig: legg þú fram son þinn,
ad vid etum hann í dag, og minn son skulum
vid eta á morgun. 29. Þá sudum vid minn
son og átum hann d); og eg sagdi vid hana
daginn eptir: legdu nú til þinn son ad vid et-
um hann, þá hafdi hún falid son sinn. 30.
En sem Kóngur heyrdi þetta tal konunnar, reif
hann sín klædi (en hann var á gángi uppá
borgarveggnum) og fólkid leit til, og sjá! hann
hafdi sekk um sinn líkama undir klædum d).
31. Og hann mælti: Gud gjøri mér svo og
ennfremur e) ef høfudid skal vera í (allann) dag
á Elísa, syni Safats!

32. En Elísa sat í sínu húsi og Øldúngarn-
ir sátu hjá honum. Þá sendi Kóngurinn mann

V. 17. *a.* 2, 11. *b.* Sálm. 68, 18. V. 22. *c.* Ordskv. 25, 21. V. 29. *d.* Lev. 26, 29. Devt. 28, 53. Jer. 19, 9. Jer. H: gr: 4. 10. V. 30. *e.* 1 Kron. 21, 27. V. 31. *f.* 1 Kóng. 19, 2. 20, 10.

frá sér; en áðurenn þeßi sendimaður kom til
hans, mælti hann við Öldúngana: vitið þér að
þeßi morðíngja son sendir híngað til að høggva
af mér høfuðið? sjáið nú til; þegar sendimað-
urinn kémur, þá læsið dyrum, og ýtið honum
út með hurðinni. Heyrið þér ekki fótaburð
hans herra, á eptir honum? 33. Enn var
hann við þá að tala, og sjá! þá kom þar
sendimaðurinn og mælti: sjá! þeßi ólukka
kémur frá Drottni. Hvað skal eg leingur
bíða Drottins?

## 7. Kapítuli.

Sama efni.

1. Þá mælti Elísa: heyrið orð Drottins!
svo segir Drottinn: á morgun um þetta leiti
mun einn mælir hveitis kosta einn sikil, og tveir
mælirar biggs einn sikil í Samaríu borgar-
hliði. 2. Þá svaraði riddari, við hvørs hønd
Kóngur studdist a) Guðsmanninum, og mælti:
mundi þetta géta skéð þó Drottinn gjørði glugga
á himinin? og hinn mælti: þú munt sjá það
með þínum augum, en ekki eta þar af.

3. En þar voru fjórir holdsveikir menn
við inngánginn til borgarhliðsins, sem søgðu
hvør við annan: hví dveljum vér hér þángað
til vér deyum? 4. Þó vér nú segðum: vér
skulum gánga inní borgina, þá er þar húng-
ur; og ef vér erum hér, deyum vér. Og kom-
ið nú! látum oß strjúka í herbúðir enna Sýr-
lendsku; ef þeir láta oß lifa, svo lifum vér;
og ef þeir deyða oß, svo deyum vér. 5. Og
svo toku þeir sig upp í birtíngunni til þeß að
komast í herbúðir Sýrlendskra; og sem þeir
komu að øðrum enda herbúða enna Sýrlendsku,
þá var þar einginn maður, 6. því Drottinn
hafði látið þann Sýrlendska her heyra vagna
gný og hesta þyt, eins og heyrist þar sem að
fer mikill her, og hvør sagði við annan: sjá!
nú hefir Ísraels Konúngur leigt Hetítanna
Kónga, og Kóngana af Egyptalandi móti oß,
svo þeir yfirfalli oß. 7. Og þeir tóku sig
upp og flýðu í birtíngunni, og létu eptir sín
tjøld, og sín hroß og asna, og herbúðir eins
og þær vóru, og flýðu til að forða lífinu. 8.
Og sem enir holdsveiku komu til herbúðanna,
geingu þeir í eitt tjald og átu og drukku, og
tóku þaðan silfur og gull og klæði, og geingu
burt og fólu það, og komu aptur og geingu í
annað tjald, og tóku og svo þaðan, geingu
burt og fólu.

9. Þá søgðu þeir hvør við annan: þetta
er ekki rétt gjørt! þeßi dagur er dagur góðs
boðskapar; og ef vér þegjum og bíðum þáng-
að til á morgun í bítið, þá hittum vér sjálfa
oß fyrir. Komum nú, látum oß fara og bera
þeßi tíðindi í Kóngs húsið. 10. Og svo komu
þeir, køllúðu til varðmannanna við borgar
hliðið og søgðu þeim frá og mæltu: vér kom-
um til herbúða enna Sýrlendsku, og sjá! þar
var einginn maður, og ekki heyrðist manns
raust, en þar stóðu bundnir hestar og bundnir
asnar, og tjøldin eins og þau voru. 11. Þeir
kølluðu þetta til varðmanna borgarhliðsins, og
þeir létu tíðindin komast í Kóngsins hús. 12.
Þá stóð Konúngur upp um nóttina og mælti
til sinna manna: eg vil segja yður hvað Sýr-
lendskir ætla nú að gjøra oß: þeir vita að
vér erum húngraðir, og eru svo komnir úr
herbúðunum, til að fela sig í fjøllunum, því
þeir hugsa: þegar þeir gánga út úr borginni
skulum vér hertaka þá lifandi, og brjótast
inní borgina. 13. Þá svaraði einn af hans
mønnum, og mælti: taki menn þá 5 af þeim
hestum sem eptir eru orðnir í staðnum (sjá!
þeir eru sem allur fjøldi Ísraels, sem eptir er
hér inni, sem allur Ísraels fjøldi hér inni,
sem farinn er), vér skulum senda þeßa, og

V. 33. Þetta er orðsending Kóngsins. V. 1. 3 Mós. v. 16. V. 2. a. 5, 18.

vita hvad um er ad vera. 14. Svo tóku þeir tvo vagna med hestum fyrir, og Kóngur sendi þá eptir her Sýrlendskra og mælti: farid og sjáid. 15. Og þeir fóru eptir þeim allt ad Jórdan, og sjá! allur vegurinn var þakinn klædum og áhøldum, sem Sýrlendskir høfdu kastad frá sér á flóttanum. Og sendimenn komu aptur og søgdu Kóngi frá. 16. Þá gékk fólkid út ad ræna herbúdir Sýrlendskra, og mælir hveitis kostadi einn sikil og tveir mælirar byggs kostudu einn sikil eptir ordi Drottins. 17. Og Kóngurinn setti þann riddara, vid hvørs hønd Kóngurinn hafdi studst í borgarhlidid; þá tród fólkid hann undir í borgarhlidinu, svo hann dó, eins og Gudsmadurinn hafdi sagt, þegar Konúngurinn kom til hans. 18. Þad skédi nefnil. þegar Gudsmadurinn átti tal vid Kónginn og sagdi: tveir mælirar byggs munu kosta sikil, og einn mælir hveitis sikil, á morgun um þetta leiti í Samaríu borgarhlidi. 19. Þá svaradi riddarinn Gudsmanninum og mælti: mun þetta géta skéd þó Drottinn gjøri glugga á himininn? Og hann mælti: þú munt sjá þad med þínum augum, en ekkért þar af eta. 20. Og þetta kom fram vid hann, fólkid tród hann í sundur í borgar hlidinu, og hann dó.

## 8. Kapítuli.

*Hallæri í 7 ár. Sú Súnamítiska. Ben=Hadad sýkist. Jóram og Ahasía Kóngar í Júda.*

1. Og Elísa taladi vid konuna hvørrar son hann hafdi gjørt lifandi a) og mælti: tak þú þig upp og far burt, þú og þitt hyski, og vertu hvar sem þú gétur verid; því Drottinn kallar á hallæri, og þad mun koma í landid í 7 ár. 2. Þá tók konan sig upp og gjørdi eptir ordi Gudsmannsins, og fór burt, hún og hennar hyski, og var í 7 ár í Filistea landi. 3. Og ad lidnum 7 árum kom konan heim aptur úr landi Filisteanna, og gékk fyrir Kóng til ad heimta aptur hús sitt og akur. 4. Kóngur var þá einmidt ad tala vid þénara Gudsmannsins, vid Gíhesí og mælti: segdu mér frá øllu því mikla sem Elísa hefir gjørt. 5. Og þad vildi einmidt svo til ad hann var ad segja Kóngi frá, ad hann hefdi gjørt daudann mann lifandi, sjá! þá kalladi sú konan til Kóngsins, hvørrar son hann hafdi gjørt lifandi, um sitt hús og sinn akur, og Gíhesí mælti: minn herra Konúngur! þetta er konan og þetta er hennar son sem Elísa hefir gjørt lifandi. 6. Og Konúngur spurdi konuna og hún sagdi honum frá, og Kóngur fékk henni einn af hirdmønnunum og sagdi vid hann: láttu hana fá þad allt aptur sem hún átti, og allan afrakstur akursins frá þeim degi ad hún fór úr landi og til þessa dags.

7. Og Elísa kom til Damaskus, þá var Ben=Hadad Kóngur í Sýrlandi sjúkur, og honum var sagt ad gudsmadur nokkur væri þar kominn. 8. Þá mælti Kóngur vid Hasael: tak med þér gáfu, og far til fundar vid gudsmanninn og láttu hann spyrja Drottinn hvørt mér muni batna þessi veiki. 9. Og Hasael fór til fundar vid hann og tók med sér gáfu og allslags gjædi í Damaskus, klyfjar á 40 úlfalda, kom og gékk fyrir hann og mælti: þinn son, Ben=Hadad Sýrlands Konúngur, sendir mig til þín, til ad spyrja: mun mér batna þessi veiki? 10. Og Elísa sagdi til hans: far þú og seg honum: batna mun þér b). En Drottinn hefir sýnt mér, ad hann mun deya. 11. Og gudsmadurinn stardi leingi á hann, og grét.

12. Þá mælti Hasael til hans: því grætur minn herra? og hann mælti: af því eg veit hvad mikid íllt þú munt gjøra Israelssonum;

V. 16. Sbr. v. 1. V. 1. *a.* 4, 35. V. 10. *b.* Adr: batna kann þér.

þú munt brenna þeirra borgir, og slá í hel þeirra æskumenn með sverði a), og sundurmerja þeirra børn, og skéra á kviðinn á þeirra þúngudu konum b). 13. Og Hasael svaraði: hvað er þinn þræll, hundurinn sá c), að hann skyldi vinna slík stórvirki. Og Elísa mælti: Drottinn hefir sýnt mér þig svo sem Kóng í Sýrlandi d). 14. Og hann gékk burt frá Elísa, og kom til síns herra, og sagði við hann: hvað hefir Elísa við þig talað? og hann svaraði: hann hefir sagt að þér mundi batna. 15. En á næsta degi, tók hann dúk og dífði honum í vatn og lagði yfir hans andlit, svo hann dó. Og Hasael varð Kóngur í hans stað.

16. En á 5ta ári Jórams Akabssonar, Israels Kóngs, varð Jóram Jósafatsson Kóngur í Júda e). 17. Hann var 32 ára gamall þá hann varð Kóngur, og átta ár ríkti hann í Jerúsalem. 18. Og hann gékk á vegum Israels Kónga, eins og Akabs hús gjørði; því hann var giftur dóttur Akabs, og hann gjørði það sem íllt var fyrir Drottins augum. 19. En Drottinn vildi ekki gjøra Júda ríki vesælt søkum síns þénara Davíðs; eins og hann hafði heitið honum, að láta ljós skína f) alla tíma meðal hans sona.

20. Á hans døgum geingu Edomítar undan Júda, og þeir settu Kóng yfir sig. 21. Því fór Jóram yfir til Saír og allt vagnaliðið með honum; og hann tók sig upp um nótt, og sigraði Edomíta sem høfðu umkríngt hann, og fyrirliða vagnhersins; og fólkið flúði til sinna tjalda. 22. Og svo gékk Edom undan yfirdrottnun Júda, allt til þessa dags. Um sama leiti gékk og Libna undan. 23. Hvað meira er að segja um Jóram og allt hvað hann gjørði, það stendur skrifað í árbókum Júda Kónga. 24. Og Jóram lagðist hjá sínum feðrum og var grafinn hjá sínum feðrum í Davíðsborg, og Ahasía, hans son, varð Kóngur í hans stað.

25. Á tólfta ári Jórams Akabssonar, Israels Kóngs, varð Ahasía sonur Jórams, Kóngur yfir Júda. 26. Ahasía var 22 ára gamall, þá hann varð Konúngur, og ríkti eitt ár í Jerúsalem. Móðir hans hét Atalía, dóttir Omri, Israels Kóngs. 27. Og hann gékk á vegum Akabs húss, og gjørði það sem íllt var fyrir Drottins augsýn, eins og Akabs hús; því hann var í mægðum við Akabs hús. 28. Og hann (Ahasía) fór með Jóram syni Akabs í stríð móti Hasael Sýrlands Kóngi hjá Ramot í Gilead. Og Sýrlendskir særðu Jóram g). 29. Þá snéri Jóram Kóngur frá, til að láta græða sín sár, til Jesreel, þau sár sem hann hafði feingið í orustunni við Sýrlendska, hjá Rama, þá hann barðist við Hasael Sýrlands Konúng. Og Ahasía sonur Jórams, Júda Kóngur, fór að vitja um Jóram Akabs son, í Jesreel, því hann var sjúkur.

## 9. Kapítuli.

### Jehú Kóngur í Israel.

1. En Spámaðurinn Elísa kallaði einn af sonum Spámannanna og sagði við hann: gírð þínar lendar, og tak þessa smyrsla krús þér í hønd, og far til Ramot í Gilead. 2. Og þegar þú ert þángað kominn, svo leitaðu að Jehú syni Jósafats, sonar Nimsí, og gakk til hans og láttu hann standa upp meðal sinna bræðra, og leiddu hann hús úr húsi; 3. og tak svo smyrsla krúsina og helltu yfir høfuð honum með þessum ummælum: „Svo segir Drottinn: Eg smyr þig Konúng yfir Israel“; ljúk svo upp dyrum

V. 12. *a.* 10, 32. *b.* 15, 16. Esa. 13, 16. 18. Hós. 14, 1. V. 13. *c.* 1 Sam. 24, 15. *d.* 1 Kóng. 19, 15. V. 16. *e.* 1 Kóng. 22, 51. 2 Kron. 21, 1. V. 19. *f.* 1 Kóng. 11, 36. 15, 4. V. 28. *g.* 9, 14. 2 Kron. 22, 5.

og forda þér, og (tef) ekki. 4. Svo fór sá
úngi madur, Spámanna sveinninn, til Ramot
í Gílead. 5. Og sem hann kom þar, sjá! svo
voru þar fyrir herforíngjarnir; Og hann mælti:
eg hefi eitt ord vid þig ad tala, þú herforíngi!
og Jehú ansadi til: vid hvørn af oss øllum?
og hann svaradi: vid þig herforíngi! 6. Þá
stód hann upp og gékk inn í annad herbergi og
hann hellti vidsmjøri yfir hans høfud og mælti
vid hann: Svo segir Drottinn Ísraels Gud:
eg smyr þig Kóng yfir Drottins fólk Ísrael.
7. Og þú skalt vinna á ætt Akabs, þíns herra,
og eg vil hefna blóds minna þjóna, Spámann-
anna, og blóds allra Drottins þjóna á Jesabel.
8. Og allt Akabs hús skal fyrirfarast, og af
Akab vil eg afmá allt karlkyn a), þræl og frels-
íngja í Ísrael b). 9. Og eg vil gjøra Akabs
hús eins og hús Jeróbóams sonar Nebats c),
og eins og hús Baesa, sonar Ahía. 10. Og
Jesabel skulu hundar eta d) á Jesreelítans eign,
og einginn skal hana jarda. Og hann lauk
upp húsinu og flúdi.

11. En Jehú gékk út til þjóna síns herra.
Þá søgdu menn vid hann: er nokkud ad? hvørs-
vegna er sá ódi madur til þín kominn? og hann
sagdi vid þá: þér þekkid manninn, og hans tal.
12. Og þeir svørudu: þad er ekki satt! segdu
oss þad. Og hann mælti: svo og svo hefir
hann vid mig talad, nl: Svo segir Drottinn:
Eg smyr þig til Kóngs yfir Ísrael. 13. Þá
hlupu þeir til, hvør tók sín klædi og breiddu þau
undir hann, jafnvel á trøppurnar og blésu í bá-
súnuna og søgdu: Jehú er Kóngur. 14. Þann-
ig gjørdi Jehú, sonur Jósafats sonar Nimsí,
uppreisn móti Jóram, (en Jóram hafdi setid
um Ramot í Gílead, hann og allur Ísrael, mót
Hasael, Sýrlands Kóngi; 15. og Jóram Kóng-
ur snéri frá til Jesreel, til ad láta lækna sár
sín, er hann fékk í orustunni vid Sýrlendska,
þá hann bardist vid Hasael Sýrlands Kóng).
Og Jehú mælti: sé þad ydar vilji, skal einginn
komast med flótta burt úr stadnum, til ad segja
frá þessu í Jesreel. 16. Þá sté Jehú á hest og
fór til Jesreel; því þar lá Jóram, og Aha-
sía var þángad kominn til ad vitja um hann.
17. En vardmadurinn sem stód í turninum og
sá Jehús flokk, þá hann kom, mælti: eg sje flokk
koma. Og Jóram sagdi: tak þú rídandi mann,
og send hann móti þeim, ad hann spyrji hvørt
fridur sé? 18. Og sá sem rídandi fór á móti
þeim, mælti: svo segir Konúngurinn: er fridur?
Og Jehú svaradi: hvad vardar þig um frid?
far þú í minn flokk. Og vardmadurinn sagdi
frá þessu og mælti: sendimadurinn er til þeirra
kominn, en kémur ei aptur. 19. Þá sendi
hann aptur rídandi mann, og hann kom til
þeirra og mælti: svo segir Kóngurinn: er frid-
ur? og Jehú svaradi: hvad vardar þig um
frid? far þú í minn flokk. 20. Og vard-
madurinn sagdi frá þessu, og mælti: hann er
til þeirra kominn, en kémur ekki aptur. Og
før þeirra er sem þad væri før Jehú sonar
Nimsí, því hann fer sem galinn madur.

21. Þá sagdi Jóram: spennid fyrir vagn-
inn! og menn spenntu fyrir hans vagn, og
Jóram Ísraels Kóngur og Ahasía Júda Kóng-
ur, fóru hvør á sínum vagni á móti Jehú,
og þeir mættu honum á landeign Jesreelítans
Nabots. 22. En sem Jóram sá Jehú, sagdi
hann: er fridur, Jehú? Og hann svaradi:
hvør fridur gétur verid medan afgudadýrkun og
tøfrar módur þinnar Jesabel margfaldast? 23.
Þá snéri Jóram undan og flúdi, og sagdi vid
Ahasía: svik eru á ferdum, Ahasía! 24. En Jehú
þreif boga sinn, og hæfdi Jóram milli hand-
leggjanna, svo pílan fór í gégnum hjartad, og

V. 8. *a.* 1 Kóng. 14, 10. *b.* Deut. 32, 36. 2 Kóng. 14, 26. V. 9. *c.* 1 Kóng. 15, 29. *d.* 1 Kong. 16, 3. V. 10. *e.* 2 Kóng. 9, 25.

hann hné nidur í sínum vagni. 25. Og hann (Jehu) sagdi vid Bídekar sem stýrdi vagninum: taktu hann, kastadu honum á landeign Jesreelítans Nabots! því mundu þad, þegar vid, eg og þú, ridum saman med fødur hans Akab, þá lagdi Drottinn þenna dóm á hann. 26. Já, í gjær sá eg blód Nabots og sona hans, segir Drottinn, og eg vil launa þér þad á þessari landeign, segir Drottinn. Og tak þú hann nú og kasta þú honum á þessa landeign eptir ordi Drottins. 27. En er Ahasía Júda Kóngur sá þetta, flúdi hann til jurtagards húsins. Og Jehú elti hann, og mælti: vinnid og á honum í vagninum! (og þad tókst) á hædinni Gúr hjá Jibleam. Og hann flúdi til Megiddó, og dó þar. 28. Og hans menn fluttu hann til Jerúsalem og grófu hann í hans grøf hjá fedrum hans, í Davíds borg. 29. En á ellefta ári Jórams Akabs sonar hafdi Ahasía ordid Kóngur í Júda.

30. Og Jehú kom til Jesreel. En sem Jesabel frétti þad, fágadi hún (sín augu) sitt andlit a) og prýddi sitt høfud, og leit út um gluggann. 31. Og sem Jehú kom í portid, mælti hún: fór vel fyrir Simri sem drap sinn herra? 32. Og honum vard litid upp til gluggans og mælti: hvør fylgir mér? hvør? Og tveir, þrír hirdmenn litu út (um gluggann) til hans. 33. Og hann sagdi: kastid henni út! og þeir køstudu henni út, og blód hennar slettist á vegginn og á hestana, og hún var fóttrodin. 34. Og hann (Jehú) gékk og át og drakk, sídan mælti hann: gáid þó ad þeirri bannsettu og jardid hana, því Kóngs dóttir er hún. 35. Þá fóru þeir ad jarda hana, en þeir fundu ekkért af henni, nema hauskúpuna og fætur og hendur. 36. Og þeir komu aptur og søgdu honum frá, og hann mælti: þad er einmidt Drottins ord, er hann taladi fyrir sinn þjón Elía Tesbíter, þá hann sagdi: á landeign Jesreelítans skulu hundar eta Jesabels hold b). 37. Og Jesabels líkami skal liggja úti sem tad á túni, á landeign Jesreelítans, svo einginn skal géta sagt, ad þad sé Jesabel.

## 10. Kapítuli.

Jehú afmáir Akabs ætt og Baals presta.

1. En í Samaríu voru 70 synir c) Akabs. Og Jehú skrifadi bréf og sendi þau til Samaríu til Jesreels høfdíngja, øldúnganna, og þeirra sem fóstrudu Akabs børn, þau hljódudu þannig: 2. Þegar þér medtakid þessi bréf, fyrst þér hafid hjá ydur syni ydvars herra, og vagna og hesta, samt sterka borg og herklædi, 3. þá veljid þann besta og hæfilegasta af sonum ydar herra, og setjid hann í hásæti fødur síns og strídid fyrir hús ydar herra. 4. En þeir urdu mjøg hræddir og søgdu: sjá! tveir Kóngar gátu ekki stadid á móti honum d) hvørnig skyldum vér þá géta veitt mótstødu? 5. Og þeir sem voru settir yfir húsid, ɔ: Kóngsins og yfir stadinn, og þeir eldstu og fóstrarnir, sendu til Jehú og létu segja: þínir þjónar erum vér og vér viljum gjøra allt sem þú segir oss; vér viljum eingann til Konúngs taka; gjør hvad þér gott þikir.

6. Þá skrifadi hann þeim í annad sinn svo látandi bréf: efad þér viljid fylgja mér og hlýda minni raust, þá takid høfudin af sonum ydar herra, og komid med þau á morgun í þetta mund til mín til Jesreel, (en synir Kóngsins voru 70, uppfóstradir hjá þeim gøfugustu mønnum í borginni). 7. En sem bréfin komu til þeirra tóku þeir Kóngs synina og slátrudu þeim, 70 mønnum e), og løgdu høfud þeirra

V. 30. *a.* Jer. 4, 30. V. 36. *b.* v. 10. 1 Kóng. 21, 23. V. 1. *c.* Dóm. 8, 30. V. 4. *d.* 9, 23. 24. 27. V. 7. *e.* Dom. 9, 5.

í körfur, og sendu honum þau til Jesreel. 8. Þá kom sendibodinn og lét hann vita af, og mælti: þeir eru komnir med höfudin af Kóngs sonunum. Og hann sagdi: leggid þau í tvær hrúgur til morguns vid inngánginn til borgarhlidsins. 9. En um morgunin er hann gékk út, fór hann þángad og taladi svoleidis vid allt fólkid: þér erud réttvísir! sjá! eg hefi gjört uppreisn móti mínum herra og drepid hann; en hvör hefir unnid á þessum? 10. Kannist þá vid, ad ekkért af ordum Drottins er fallid til jardar, sem Drottinn hefir talad móti Akabs húsi; Drottinn hefir gjört þad sem hann taladi fyrir sinn þjón Elía. 11. Og Jehú drap alla þá, af Akabs ætt sem eptir voru í Jesreel, og alla hans höfdíngja og kunníngja og presta, og lét ekki einn undan komast.

12. Og hann tók sig upp og kom og fór til Samaríu. Hann var einmidt á leidinni hjá fjárhirdara húsinu, 13. þegar hann mætti brædrum Ahasía Júda Kóngs; og Jehú mælti: hvörjir erud þér? og þeir svörudu: vér erum brædur a) Ahasía, og erum komnir híngad til ad heimsækja syni Kóngsins og syni drottníngarinnar. 14. Þá sagdi hann: handtakid þá lifandi! og hann slátradi þeim vid brunninn sem var hjá hirdara húsinu, 42ur mönnum, og hann lét aungvann af þeim undan komast. 15. Og hann fór þadan, og hitti Jónadab son Rekobs b) sem kom á móti honum, og heilsadi honum og mælti vid hann: er þitt hjarta einlægt, eins og mitt hjarta er (einlægt) vid þitt hjarta? og Jónadab svaradi: þad er! sé þad svo, þá géf mér þína hönd! og hann gaf honum sína hönd, og hann lét hann stíga á vagninn til sín, 16. og mælti: kom med mér og sjá, hvörsu eg vandlæti fyrir Drottinn! og svo lét hann flytja hann á sínum vagni. 17. Og sem hann kom til Samaríu drap hann alla sem eptir voru í Samaríu af Akabs ætt, þángad til hann hafdi afmád hann, eptir Drottins ordi, sem hann hafdi talad vid Elía c).

18. Og Jehú samansafnadi öllu fólkinu og sagdi til þeirra: Akab hefir lítid þjónad Baal, Jehú vill þjóna honum mikid. 19. Og kallid nú saman alla Baals spámenn og hans þjóna og alla presta til mín, eingann vanti; því eg ætla ad færa Baal mikla fórn, hvör sem ei kémur, missir lífid. En Jehú beitti hér svikum, til þess ad fyrirfara Baals þjónum. 20. Og hann mælti: helgid Baal þenna samkomu dag d)! og þeir úthrópudu hann. 21. Og Jehú sendi um allan Ísrael; þá komu allir Baals þjónar, og eingis var vant, ad hann ekki kjæmi, og þeir komu í Baals hús, og Baals hús vard fullt frá einum enda til annars. 22. Og hann sagdi vid þann sem var yfir klæda húsinu: tak út klædi handa öllum Baals þjónum! og hann tók út klædi handa þeim. 23. Eptir þad gékk Jehú og Jónadab Rekobs son inní hús Baals, og hann sagdi vid Baals þjóna: ransakid nú og sjáid til, ad hér sé eingínn hjá ydur af Drottins þénurum, heldur Baals þjónar einir. 24. Og þeir geingu inn til ad annast um slátur- og brennifórnina. En Jehú hafdi tilsett 80 manns fyrir utan húsid og sagt: komist nokkur burt af þessum mönnum, sem eg gef í ydar hendur, svo skal ydar líf vera fyrir hans líf. 25. En sem lokid var brennifórninni, sagdi Jehú vid hirdmennina og vagnmennina: gángid inn, drepid þá, einginn komist út! og þeir slóu þá med sverds eggjum, og hirdmennirnir og vagnmennirnir köstudu þeim út, og þeir geingu þángad sem Baals hús var í stadnum, 26. og tóku bílætin úr Baals húsi og uppbrendu þau. 27. Og

V. 13. *a.* Eda brædra synir Sbr. 2 Kron. 22, 8. V. 15. *b.* Jer. 35, 6. V. 17. *c.* 1 Kóng. 21, 21. 22. V. 20. *d.* Lev. 23, 36. V. 26. Sbr. 11, 18.

feldu nidur Baals bílæti a), og rifu nidur Baals hús, og gjørdu þad ad smáum leyni kofum allt til þessa dags.

28. Þannig afmádi Jehú Baal í Israel. 29. En samt lét Jehú ekki af syndum Jeróbóams sonar Nebats b), sem kom Israel til ad syndga, sagdi ekki skilid vid gullkálfana í Betel og í Dan. 30. Og Drottinn sagdi vid Jehú: sökum þess þú gjørdir alúdlega, þad sem rétt er fyrir mínum augum, og breittir øldúngis eptir mínu sinni vid Akabs hús, svo skulu synir þínir í 4da lid sitja á Israels hásæti c). 31. En Jehú gaf því eingann gaum ad gánga eptir bodordum Drottins Israels Guds af øllu sínu hjarta; hann vék ekki frá syndum Jeróbóams sem hafdi komid Israel til ad syndga. 32. Um þessar mundir byriadi Drottinn ad sneida nokkud af Israels ríki; og Hasael d) vann orustur á øllum Israels landamerkjum, 33. frá Jórdan ad austantil og um allt landid Gílead, á móti Gads, Rúbens og Manassis nidjum, frá Aróer sem liggur vid lækinn Arnon, allt til Gílead og Basan.

34. En hvad meir er ad segja af Jehú og um allt sem hann gjørdi, og øll hans hreystiverk, þá stendur þad skrifad í árbókum Israels Kónga. 35. Og Jehú lagdist hjá sínum fedrum, og menn grófu hann í Samaríu, og Jóakas sonur hans vard Kóngur í hans stad e). 36. En Jehú ríkti yfir Israel, í Samaríu, 28 ár.

## 11. Kapítuli.

Atalíu hardýdgi.

1. En er Atalía módir Ahasía f) sá, ad sonur hennar var daudur, tók hún sig til, og fyrirfór allri Kóngs ættinni. 2. Þá tók Jóseba, dóttir Jórams Kóngs, systir Ahasía, Jóas, Ahasíason g), og stal honum úr hóp Kóngssonanna, sem deyddir voru, honum og fóstru hans í svefnherberginu. Og þeir fólu hann fyrir Atalíu, svo hann var ekki deyddur; 3. og hann var í 6 ár falinn med henni í húsi Drottins. En Atalía ríkti yfir landinu.

4. Og á sjøunda ári sendi Jójada og sókti foríngjana yfir hundrad manns af hirdinni, og lét þá koma til sín í Drottins hús, og sýndi þeim Kóngssoninn. 5. Og hann baud þeim og mælti: þetta er þad sem þér skulud gjøra: sá þridjúngur af ydur sem hvíldardagurinn tilvill, skal halda vørd í Kóngsins húsi. 6. Annar þridjúngurinn sé vid hlidid Súr, og hinn þridji vid portid á bak vid lífvaktina, svo skulud þér vakta húsid, ad einginn komist inn. 7. Og þeir tveir partar af ydur, sem hafid frí hvíldardaginn, þér skulud halda vørd í Drottins húsi kríngum Konúnginn. 8. Og þér séud allt í kríngum Konúnginn, og hvør af ydur hafi vopn í hendi; og hvør sem vill brjótast gégnum radirnar, skal deydast, og verid med Kónginum þegar hann geingur út og þegar hann geingur inn.

9. Og foríngjarnir yfir hundrad gjørdu øldúngis eins og presturinn Jójada baud, og hvør þeirra tók sína menn, bædi þá sem tóku vid og þá sem hættu ad halda vørd á hvíldardeginum, og komu til prestsins Jójada. 10. Og presturinn fékk foríngjunum þau spjót og skildi Davíds Kóngs, sem vóru í Drottins húsi. 11. Og hirdmennirnir stódu, hvør med vopn í hønd, frá hægri hlid hússins allt til hinnar vinstri, vid altarid og vid húsid hjá Kónginum allt í kríng. 12. Og hann leiddi Kóngssoninn fram, og setti uppá hann kórónuna, og rétti honum løgin, og svó gjørdu þeir hann ad Kóngi og

V. 27. *a.* 3, 2. V. 29. *b.* 13, 2. 11. 14, 24. V. 30. *c.* 15, 12. V. 32. *d.* 8, 12. V. 35. *e.* 13, 1. V. 1. *f.* 8, 26. V. 2. *g.* 1 Kron. 3, 11.

smurdu hann, og kløppudu lófum saman og hrópudu: Kóngurinn lifi!

13. Þá heyrdi Atalía háreysti hirdarinnar og fólksins, og kom til fólksins, í Drottins hús. 14. Og hún sá, og sjá! Kóngurinn stód, sem sidur var vid stólpann, og fyrirlidarnir og úthrópendurnir hjá Konúnginum, og alltlandsfólkid var gladvært, og í básúnur var blásid. Þá reif Atalía sín klædi og hrópadi: Sambláſtur! Sambláſtur! 15. En presturinn Jójada baud foríngjunum yfir hundrad, foríngjum strídsmannanna og mælti: farid med hana út inní rødunum, og deydid med sverdi hvørn sem fylgir henni; því presturinn hugsadi: hún skal ekki verda líflátin í Drottins húsi. 16. Og þeir gjørdu henni braut og hún fór veginn ad inngángi hestanna í Kóngsins hús; þar var hún drepin.

17. Og Jójada gjørdi sáttmála milli Drottins og Kóngsins og fólksins, ad þad skyldi vera Drottins fólk, og á milli Kóngsins og fólksins. 18. Þá gékk allt landsfólkid í Baalshús, og reif þad nidur, og þeir brutu gjørsamlega hans altari og bilæti, og Matan Baals prest myrdtu þeir vid altarid, og presturinn setti vardmenn í Drottins hús. 19. Og hann tók foríngjana yfir hundrad, og hirdmennina, og þeir fluttu Kónginn úr Drottins húsi og komu um hirdmanna portin inní Kóngsins hús, og hann setti sig í Kónganna hásæti. 20. Og allur landslýdurinn var gladur, og stadarfólkid rólegt; en Atalíu høfdu þeir líflátid med sverdi í Kóngsins húsi.

## 12. Kapítuli.

Jóas Konúngur í Júda.

1. Sjø ára gamall var Jóas þá hann vard Konúngur. Á sjøunda ári Jehú vard Jóas Kóngur, og 40 ár ríkti hann í Jerúsalem, módir hans var Siboa frá Bersaba. 2. Og Jóas gjørdi hvad rétt var fyrir augsýn Drottins, svo leingi sem presturinn Jójada var hans rádgjafi. 3. Hædirnar vóru samt ekki aflagdar; enn þá fórnadi fólkid og brendi reykelsi á hædunum.

4. Og Jóas sagdi vid prestana: alla helgada penínga sem bornir verda í Drottins hús, gjaldgeinga penínga a), þá penínga sem hvør og einn eptir efnum b) géfur fyrir sálu sinni, alla penínga sem einhvørjum kémur til hugar ad bera í Drottins hús c), 5. skulu prestarnir taka til sín, hvør af sínum kunníngjum og þeir skulu þar med endurbæta allt þad hrørlega á húsinu, allt þad sem á því finnst hrørlegt. 6. Og þad skédi, ad á því 23ja ári sem Jóas ríkti, høfdu prestarnir ekki endurbætt þad hrørlega á húsinu. 7. Þá kalladi Jóas fyrir sig prestinn Jójada og hina prestana og sagdi til þeirra: því bætid þér ekki þad hrørlega á húsinu? Nú skulud þér ekki taka vid peníngum af ydar kunníngjum, því til ad endurbæta húsid skulud þér þá af hendi láta. 8. Þá geingu prestarnir ad þeim kostum, ad taka ekki vid peníngum af fólkinu og endurbæta svo ekki þad hrørlega á húsinu. 9. Og presturinn Jójada tók kistu og gjørdi gat á lokid og setti hana hægramegin vid altarid; þegar einhvør kom í Drottins hús, þá létu prestarnir, sem geymdu dyranna, þarí, alla þá penínga sem bornir vóru í Drottins hús. 10. Og þegar þeir sáu ad mikid af peníngum var í kistunni, svo kom Kóngsins skrifari og sá ædsti prestur þángad, og þeir bundu saman og tøldu alla þá penínga sem fundust í Drottins húsi. 11. Og þeir gáfu þá vegnu penínga þeim í hønd, sem tóku verkid ad sér í Drottins húsi, og tilkvaddir voru; þeir útløldu þá timburmønnum og byggíngamønnum, sem unnu ad Drottins húsi, 12. og múrurum og steinhøggurum, og til ad kaupa vid og

V. 4. *a.* Gen. 23, 16. *b.* Eda mati sbr. Lev. 27, 3. fl. *c.* Ex. 25, 2. 35, 5. 2 Kron. 24, 6.

høggna steina, til ad endurbæta þad hrørlega
á Drottins húsi, og til alls sem betala skyldi
fyrir húsins endurbót. 13. Þó voru ei fyr-
ir Drottins hús gjørdar silfur skálar, hnífar,
fórnabollar, básúnur, né nokkur gull eda silfur
áhøld, fyrir þá peninga sem saman høfdu ver-
id bornir í Drottins hús; 14. heldur feingu
menn þá þeim sem verkid høfdu ad sér tekid
og þeir endurbættu þar fyrir Drottins hús;
15. Og menn héldu ekki reikníng vid þá sem
vid peníngunum tóku, til ad gjalda þeim sem
ad verkinu unnu; því þeim var til þess trúad;
16. En peníngar fyrir sekta fórnir og peníngar
fyrir synda fórnir voru ekki bornir í Drottins
hús, því prestarnir áttu þá.

17. Um þad bil fór Sýrlands Kóngur
Hasael herfør og herjadi á (borgina) Gat,
og vann hana. Og Hasael snérist ad því ad
fara móti Jerúsalem. 18. En Jóas Júda
Konúngur tók allt þad helgada, sem forfedur
hans Jósafat, Jóram og Ahasía, Kóngar í
Júda høfdu helgad, og þad sem hann sjálfur
hafdi helgad, og allt þad gull sem fannst í féhirdsl-
um Drottins húss, og Kóngsins húss og sendi
þad Hasael Sýrlands Kóngi. Þá hvarf hann
frá Jerúsalem. 19. En hvad meira er ad
segja um Jóas og allt sem hann gjørdi, þá
stendur þad skrifad í árbókum Júda Kónga a).
20. Og hans þegnar tóku sig til og sam-
sórust móti honum, og drápu Jóas í húsinu
Millo, þar sem geingid er til Silla. 21.
Hans þegnar Jósakar Simeats sonur, og
Jósabad Somers sonur, unnu á honum, svo
hann dó, og hann var jardadur hjá fedrum
sínum í Davíds borg, og Amasía sonur hans
vard Kóngur í hans stad b).

## 13. Kapituli.

Jóakas og Jóas Kóngar í Israel. Elísa spámad-
ur deyr.

1. Á 23dja ári Jóas, sonar Ahasía, Júda
Kóngs, vard Jóakas Jehú son, Kóngur yfir
Israel í Samaría (og ríkti) 17 ár. 2. Og
hann gjørdi þad sem Drottni illa líkadi og
gékk eptir syndum Jeróbóams sonar Nebats,
sem hafdi komid Israel til ad syndga, og lét
ei af því. 3. Þá gramdist Drottni vid Isra-
el, og hann gaf þá í hønd Hasaels Sýrlands
Kóngs c), og í hønd Benhadads, Hasaels son-
ar, medan þeir lifdu. 4. Þá grátbændi Jóakas
Drottinn, og Drottinn bænheyrdi hann, því
hann sá Israels ánaud, hvørsu Sýrlands Kóng-
ur þraungdi þeim. 5. Og Drottinn gaf Isra-
el hjálpar mann d), svo þeir losnudu undan
valdi Sýrlendskra, og Israels menn bjuggu í
sínum tjaldbúdum, sem ádur. 6. Þó viku
þeir ekki frá syndum Jeróbóams húss, sem
hafdi komid Israel til ad syndga, heldur geingu
fram í þeim. Og fórna lundurin stód í Sama-
ríu. 7. En eptir var ekki ordid af Jóakas
(stríds) fólki meir enn 50 reidmenn og 10 vagn-
ar, og 10 þúsund fótgaungulids, því Sýrlands
Kóngur hafdi drepid þad nidur, og gjørt ad
þreskíngar riki. 8. Hvad meir er ad segja um
Jóakas og allt hvad hann gjørdi og hans
hreysti verk, þad stendur skrifad í árbókum Is-
raels Kónga. 9. Og Jóakas lagdist hjá sín-
um fedrum, og var jardadur í Samaríu; og
Jóas sonur hans vard Kóngur í hans stad.

10. Á 37da ári Jóas, Kóngsins í Júda, vard
Jóas sonur Jóakas, Kóngur yfir Israel í Sa-
maríu (og ríkti) 16 ár. 11. Og hann gjørdi
þad sem Drottni illa líkadi; hann vék ei frá øll-

V. 15. Kap. 22, 7. V. 19. *a.* 2 Kron. 24, 1. V. 21. *b.* 14, 1. V. 3. c. 10, 32. 1 Kóng. 19, 15. V. 5. *d.* 14, 27. V. 7. Þreskingar riki. þ. e: þad sást ekkert eptir af þeim, heldurenn af riki sem kémur úr korni þá þad er hreinsad. V. 11. 14, 24. 15, 9.

um syndum Jeróbóams sonar Nebats, sem hafdi komid Israel til ad syndga, heldur gékk fram í þeim. 12. Hvad meira er um Jóas ad segja og allt sem hann gjørdi og hans hreysti verk, hvørsu hann bardist vid Amasía Júda Kóng, þad stendur skrifad í árbókum Israels Kónga. 13. Og Jóas lagdist hjá sínum fedrum, og Jeróbóam settist í hans hásæti. Og Jóas var grafinn í Samaríu hjá Israels Kóngum.

14. En Elísa lagdist í sótt sem hann andadist úr. Þá kom Jóas Israels Konúngur til hans, og grét yfir honum og mælti: minn fadir! minn fadir! Israels vagn og reidmadur a). 15. Og Elísa mælti til hans: tak boga og ørvar! og hann tók boga og ørvar. 16. Og hann sagdi vid Israels Kóng: legg þína hønd á bogann! og hann lagdi sína hønd á hann. Og Elísa lagdi sína hønd ofaná Kóngsins hønd, 17. og mælti: opna gluggann mót austri! og hann opnadi hann. Og Elísa mælti: skjót! og hann skaut. Og hann mælti: sigur ør frá Drottni! sigur ør yfir Sýrlendskum, svo muntu sigra Sýrlendska í Afek, þángad til þú afmáir þá! 18. Eptir þad sagdi hann: tak ørvarnar! og hann tók þær. Og hann mælti vid Israels Kóng: slá þú á jørdina! og hann sló þrisvar og hætti svo. 19. Þá gramdist Gudsmanninum vid hann, og mælti: þú hefdir átt ad slá 5 eda 6 sinnum, þá hefdir þú gjørt útaf vid Sýrlendska; enn nú munt þú sigra þá Sýrlendsku þrisvar. 20. Og Elísa dó, og menn grófu hann. Og flokkar af Móabítum komu í landid í ársins byrjun. 21. En svo vildi til, ad menn voru ad jarda mann; og sjá! þeir sáu flokkinn, og køstudu manninum í Elísa grøf b); og sem madurinn snerti Elísa bein, vard hann lifandi, og gékk á sínum fótum.

22. En Hasael, Sýrlands Kóngur, hafdi þraungvad Israel, medan Jóakas lifdi. 23. En Drottinn sá aumur á þeim, og miskunadi þeim og snéri sér til þeirra, sakir síns sáttmála vid Abraham, Isaak og Jakob c), og vildi ekki tortína þeim, og snaradi þeim ekki algjørlega frá sínu augliti. 24. Og Hasael Sýrlands Kóngur dó, og Ben-Hadad hans son vard Kóngur í hans stad. 25. Þá tók Jóas sonur Jóakas stadina aptur úr hendi Ben-Hadads, Hasaels sonar, sem hann hafdi nád í strídi úr hendi Jóakas, fødur hans. Þrisvar sigradi Jóas hann, og nádi aptur Israels stødum.

## 14. Kapítuli.

Amasía Júda Kóngur er sigradur af Jóas.

1. Á ødru ári Jóas, Jóakas sonar, Israels Kóngs, vard Amasía Kóngur, sonur Jóas Júda Kóngs. 2. 25 ára var hann þá hann vard Kóngur, og 29 ár ríkti hann í Jerúsalem, en módir hans hét Jóadan, í Jerúsalem. 3. Og hann gjørdi þad sem rétt var fyrir Drottins augsýn; þó ekki eins og Davíd fadir hans; hann breitti rétt vidlíka og fadir hans Jóas. 4. Hædirnar voru ekki afteknar. Ennþá fórnadi fólkid og brendi reykelsi á hædunum. 5. En sem Kóngsríkid festist í hans hendi, lét hann drepa þá sína þegna, sem høfdu myrdt Kónginn fødur hans. 6. En syni þeirra sem drepid høfdu fødur hans, lét hann ekki deyda, eins og skrifad stendur í løgbók Mósis d), eins og Drottinn hafdi bodid, þá hann sagdi: fedur skulu ekki deydast sakir sonanna, og synirnir skulu ekki deydast sakir fedr-

V. 14. *a.* 2, 12. V. 21. *b.* Sir. 48, 17. V. 23. *c.* Ex. 2, 24. Lev. 26, 42. V. 6. *d.* Devt. 24, 16. 2 Kron. 25, 4.

anna, heldur skal hvør einn deydast fyrir sínar syndir. 7. Hann sigradi Edomíta í Saltdalnum, 10 þúsund manns a), og tók Sela í stríđi, og nefndi Joktel, (svo heitir hún) allt til þessa dags b).

8. Þá sendi Amasía menn til Jóas, sonar Jóakas, sonar Jehú Kóngs í Ísrael, með þessa ordsendíng: kom! látum oss finnast c)! 9. En Jóas Ísraels Kóngur gjørdi aptur bod Amasía Júda Kóngi, svo látandi: þyrnibúskurinn d) á Líbanon sendi skilabod til Sedrusvidsins á Líbanon svo látandi: gefdu dóttur þína syni mínum fyrir konu. En villudýrin í Líbanons skógji hlupu þá yfir þyrnibúskinn og sundurtródu hann. Þú hefir sigrad Edomíta, því hefir þér vaxid hugur; njóttu sæmdarinnar, og haldtu þig heima! því viltu leita ógjæfunnar, ad þú fallir og Júda ríki med þér?

11. En Amasía gaf því eingann gaum; þá lagdi Jóas Ísraels Kóngur af stad, og þeir fundust, hann og Amasía Júda Kóngur í Bet-Semes, sem tilheyrir Júda. 12. En Júda hafdi ósigur fyrir Ísrael, og þeir flýdu hver heim til sín. 13. Og Jóas Ísraels Kóngur tók til fánga Amasía Júda Kóng, son Jóas, sonar Ahasía, í Bet-Semes, og kom til Jerúsalem og nidurreif Jerúsalems múrvegg frá Efraims hlidi og allt ad hornhlidinu, 4 hundrud álnir. 14. Og tók allt gull og silfur og øll áhøld sem fundust í Drottins húsi, og í féhirdslu Kóngs húsins, og gisla, og fór aptur til Samaríu. 15. En hvad meira er um Jóas ad segja, hvad hann gjørdi, og um hans hreystiverk, og hvørsu hann stríddi vid Amasía Júda Kóng, þá er þad skrifad í árbókum Ísraels Kónga. 16. Og Jóas lagdi sig hjá sínum fedrum, og var jardadur í Samaríu hjá Ísraels Kóngum, og Jeróbóam, hans son, vard Kóngur í hans stad. 17. Og Amasía sonur Jóas, Júda Kóngur, lifdi eptir dauda Jóas Jóakassonar Ísraels Konúngs, 15 ár. 18. En hvad meira er ad segja um Amasía, þad stendur skrifad í árbókum Júda Kónga. 19. Og þeir gjørdu uppreisn móti honum í Jerúsalem, og hann flúdi til Lakis, og þeir sendu eptir honum til Lakis og drápu hann þar. 20. Og þeir fluttu hann á hestum, og grófu hann í Jerúsalem, hjá sínum fedrum í Davíds borg. 21. Þá tók allt Júda fólk Asaría (en hann var 16 ára gamall) og gjørdi hann ad Kóngi, í stad Amasía, fødur hans. 22. Hann bygdi Elat, og lagdi aptur undir Júda, eptir ad Kónginum var lagstur hjá sínum fedrum.

23. Á 15da ári Amasía, sonar Jóas, Júda Kóngs, vard Jeróbóam e) sonur Jóas Kóngs í Ísrael, Kóngur í Samaríu, (og ríkti) 41 ár. 24. Og hann adhafdist þad sem Drottni illa líkadi; hann vék ekki frá øllum syndum Jeróbóams sonar Nebats, sem hafdi komid Ísrael til ad syndga. 25. Hann setti aptur Ísraels landamerki í samt lag, frá héradinu kríngum Hemat, allt til stødavatnsins á sléttlendinu (dauda hafsins) eptir ordi Drottins Ísraels Guds, sem hann hafdi talad, fyrir sinn þénara Jóna Amítaisson Spámanninn f), sem var frá Gat-Hefer. 26. Því Drottinn sá Ísraels eymd sem var mjøg bitur, og allt farid, þræll og frelsíngi, og einginn hjálpari fyrir Ísrael. 27. Og Drottinn hafdi ekki sagt ad hann vildi afmá Ísraels nafn undir himninum; og svo hjálpadi hann þeim fyrir hønd Jeróbóams Jóassonar. 28. En hvad meira er, ad segja um Jeróbóam, og allt sem hann gjørdi og hans hreystiverk, hvørsu hann stríddi og kom

V. 7. *a.* 2 Kron. 25, 11. *b.* Jós. 15, 38. V. 8. *c.* Finnast þ. e. reyna med okkur i stridi. V. 9. *d.* Dóm. 9, 14. V. 15. 2 Kron. 25, 26. V. 18. 2 Kron. 25, 1. V. 21. 15, 1. 2. V. 23. *e.* Hós. 1, 1. Am: 1, 1. V. 24. 1 Kóng. 15, 26. 16, 19—26. 31. V. 25. *f.* Jón. 1, 1. V. 26. Devt. 32, 36. 1 Kóng. 14, 10. 21, 21.

aptur Damaskus og Hemat undir Júda fyrir Ísraels (fulltíngi), þad stendur skrifad í árbókum Ísraels Kónga. 29. Og Jeróbóam lagdi sig hjá sínum fedrum, hjá Ísraels Konúngum, og Sakaría, hans son, vard Kóngur í hans stad a).

## 15. Kapítuli.

Asaría (Usía) Júda Kóngar. Sakaría, Sallum, Menahem, Pekahía og Peka, Kóngar í Ísrael.

1. Á 27da ári Jeróbóams Ísraels Kóngs, vard Asaría Kóngur, sonur Amasía Júda Kóngs. 2. Hann var 16 ára gamall þá hann vard Kóngur, og hann ríkti 52 ár í Jerúsalem. En módir hans hét Jekolía af Jerúsalem. 3. Og hann gjørdi þad sem Drottni vel þóknadist, í allann máta eins og fadir hans Amasía hafdi gjørt; 4. nema þad ad hædirnar voru ekki afteknar b); ennþá færdu menn fórnir og brendu reykelsi á hædunum. 5. Og Drottinn sló Kónginn, svo hann var holdsveikur til dauda dags, og hann bjó í spitala (sjúklínga húsi). En Jótam sonur Kóngsins, var settur yfir Kóngs húsid og dæmdi landsfólkid. 6. Hvad meira er um Asaría ad segja, og allt sem hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Júda Kónga. 7. Og Asaría lagdist hjá sínum fedrum, og var grafinn hjá sínum fedrum í Davíds borg, og Jótam sonur hans vard Kóngur í hans stad c).

8. Á 38da ári Asaría Júda Kóngs, vard Sakaría, sonur Jeróbóams Kóngur yfir Ísrael í Samaría, (og ríkti) sex mánudi. 9. Og hann gjørdi þad sem Drottni mislíkadi, einsog fedur hans høfdu gjørt; hann vék ekki frá syndum Jeróbóams sonar Nebats, sem hafdi komid Ísrael til ad syndga. 10. Og Sallum sonur Jabes gjørdi samblástur móti honum, og vann á honum í fólksins augsýn og drap hann og vard Kóngur í hans stad. 11. Hvad meira er ad segja um Sakaría, sjá! þad er skrifad í árbókum Ísraels Kónga. 12. Þad var Drottins ord, er hann hafdi talad til Jehú, þá hann sagdi: synir þínir í fjórda lid skulu sitja í Ísraels hásæti; og þad skédi svo.

13. Sallum sonur Jabes vard Kóngur á 39 ári Usías Júda Kóngs, og ríkti einn mánud í Samaríu. 14. Þá fór Menahem Gadíson frá Tirsa og kom til Samaríu, og vann Sallum son Jabes í Samaríu, og drap hann og vard Kóngur í hans stad. 15. Hvad meira er ad segja um Sallum, og þann samblástur sem hann vakti, sjá! þad er skrifad í árbókum Ísraels Kónga. 16. Þá vann Menahem Tissa, og alla sem þar voru, og hennar hérad til Tirsa; (borginni) hafdi ekki verid lokid upp fyrir honum, því drap hann allt í strá, allar þúngadar konur sneid hann í sundur.

17. Á 39da ári Asaría Júda Kóngs, vard Menahem, Gadi son, Kóngur yfir Ísrael, (og ríkti) 10 ár í Samaríu. 18. Og hann gjørdi þad sem Drottni mislíkadi; hann vék ekki frá syndum Jeróbóams sonar Nebats, sem hafdi komid Ísrael til ad syndga, svo leingi sem hann lifdi. 19. Og Ful Assýríu Kóngur kom med hernad í landid, og Menahem gaf Ful þúsund vættir silfurs til fylgis vid sig, ad ríki hans stadfestist. 20. Og Menahem lagdi útgjald þessara penínga á Ísrael, á alla efnada menn, til ad greida þá Assýríu Kóngi, 50 sikla silfurs á hvørn mann. Þá fór Assýríu Kóngur tilbaka og stadnæmdist ekki í landinu. 21. Hvad meira er ad segja um Menahem og allt sem hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Ísraels Kónga. 22. Og Menahem lagdist hjá sínum fedrum, og Pekaja, hans son, vard Kóngur í hans stad.

23. Á 50ta ári Asaría Júda Kóngs, vard

V. 29. *a.* 15, 8. V. 2. 14, 21. V. 4. *b.* 12, 3. 1 Kóng. 22, 44. V. 6. 2 Kóng. 26, 1. fl. V. 7. *c.* 1 Kron. 3, 12. V. 9. 10, 29. 13, 11. V. 11. 13, 8. V. 12. 10, 30. V. 18. 13, 11. 14, 24.

Pekaja, Menahems son, Kóngur yfir Ísrael í
Samaríu (og ríkti) tvø ár. 24. Hann gjørdi
þad sem Drottni illa líkadi; og hann vék ekki
frá syndum Jeróbóams sonar Nebats, sem
hafdi komid Ísrael til ad syndga. 25. Og
Peka, Remalía son, riddari hans, gjørdi upp-
reisn móti honum, og vann á honum í Sama-
ríu í høll Kóngs húsins, med þeim Argob og
Arie; en med honum voru og 50 menn af
Gíleads sonum; og hann drap hann og vard
Kóngur í hans stad. 26. En hvad meira er
ad segja af Pekaja, og um allt sem hann
gjørdi, sjá! þad er skrifad í árbókum Ísra-
els Kónga.

27. Á 52rn ári Asaría Júda Kóngs, vard
Peka, Remalía sonur, Kóngur yfir Ísrael í
Samaríu, (og ríkti) 20 ár. 28. Og hann
adhafdist þad sem Drottni illa líkadi. Hann vék
ekki frá syndum Jeróbóams sonar Nebats,
sem hafdi komid Ísrael til ad syndga. 29. Á
døgum Peka Ísraels Kóngs, kom Tíglat-Píl-
eser, Assýríu Kóngur, og tók Gíon, Abel-
Bet-Magata, Janoa, Kedes, Hasor, Gílead,
og Galíleu, allt Naftalí land, og flutti fólkid
til Assýríu. 30. Og Hosea sonur Ela, gjørdi
uppreisn móti Peka, syni Remalía, og vann á
honum og drap hann og vard Kóngur í hans
stad, á 20ta ári Jótams sonar Usía. 31.
En hvad meir er ad segja af Peka, og øllu sem
hann gjørdi, sjá! þad er skrifad í árbókum
Ísraels Kónga a).

32. Á ødru ári Pekas Remalía sonar,
Kóngs í Ísrael, vard Jótam Konúngur, son-
ur Usía Júda Kóngs b); 33. Hann hafdi
5 um tvítugt þá hann vard Kóngur, og ríkti
16 ár í Jerúsalem, en módir hans var Jerúsa,
dóttir Sadoks. 34. Og hann gjørdi þad
sem Drottni vel líkadi, og breitti í allan máta
eins og fadir hans Usía hafdi breitt. 35.
Þó voru ekki hædirnar afteknar; ennþá færdu
menn fórnir og brendu reykélsi á hædunum.
Hann bygdi þad háa port á Drottins húsi.
36. En hvad meir er ad segja um Jótam og
allt sem hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í
árbókum Júda Kónga. 37. Um þad bil fór
Drottinn ad senda móti Júda, Sýrlands Kóng
Resín, og Peka Remalía son. 38. Og Jót-
am lagdist hjá sínum fedrum og var grafinn
hjá sínum fedrum í borg Davíds fødur síns,
og Akas hans son vard Kóngur í hans stad c).

## 16. Kapítuli.

Akas Júda Kóngur.

1. Á 17da ári Peka, sonar Remalía, vard
Akas Kóngur, sonur Jótams Júda Kóngs.
2. Akas var tvítugur, þá hann vard Kóngur,
og 16 ár ríkti hann í Jerúsalem. Og hann
gjørdi ei, þad sem rétt var fyrir augliti Drott-
ins hans Guds, eins og hans fadir Davíd.
3. Hann gékk á vegum Ísraels Kónga, lét
son sinn gánga gégnum eldinn, (blótadi jafnvel
syni sínum), eptir vidbjódslegum sidum þeirra
þjóda, sem Drottinn hafdi útrekid frá Ísraels
børnum. 4. Og á hædunum færdi hann fórn-
ir og brendi reykélsi á hvørjum hól og undir
hvørju blómgudu tré.

5. Þá fóru Resín Sýrlands Kóngur, og
Peka sonur Remalía, Ísraels Kóngur, herfør
móti Jerúsalem, og þraungvudu Akas, en ork-
udu eingu í þeirri herfør. 6. Á sama tíma
kom Resín, Sýrlands Kóngur, Elat aptur
undir Sýrland, og Sýrlendskir komu til Elat,
og hafa búid þar til þessa dags. 7. Þá sendi
Akas menn til Tíglat-Píleser Assýríu Kóngs,
med þessa ordsendíng: eg em þinn þegn og
son; kom nú og veit mér lid og frelsa mig af

V. 24. 10, 29. 14, 24. V. 29. 1 Kong. 15, 20. V. 31. *a.* 2 Kron. 28, 6. V. 32. *b.* 2 Kron. 27, 1.
V. 34. 14, 3. V. 36. 2 Kron. 27, 1. V. 37. Esa. 7, 1. V. 38. c. 16, 1. 2.

hendi Sýrlands Kóngs, og Israels Kóngs, sem byrjad hafa stríd á móti mér. 8. Og Akas tók þad silfur og gull sem fannst í Drottins húsi, og í féhirdslu Kóngsins húss og sendi sem gáfu Kónginum af Assýríu. 9. Og Kóngurinn í Assýríu tók þessu vel, og fór herfør til Damaskus og tók borgina, og flutti borgar fólkid til Kír, og drap Resín.

10. Þá fór Kóngurinn Akas til fundar vid Assýríu Kóng Tiglat=Pileser til Damaskus, og sem hann sá altarid sem var í Damaskus, sendi Akas Kóngur prestinum Uría mind altarisins og skøpulag eptir sem þad var gjørt. 11. Og presturinn Uría byggdi altari; rétt eptir því sem Akas hafdi sendt frá Damaskus, gjørdi presturinn Uría þad, þángad til Kóngurinn kom frá Damaskus. 12. En sem Kóngurinn kom frá Damaskus, sá hann altarid, og Kóngur gékk ad altarinu og offradi á því, 13. og kveikti í sínni brennifórn og sínu matoffri, og hellti yfir sínni drikkjarfórn og støkkti á altarid blódi sínnar þakkarfórnar. 14. En eir=altarid, sem stód frammi fyrir Drottni, færdi hann fram fyrir húsid, ad þad væri ei milli (nýa) altarisins og Drottins húss, og setti þad á hlid vid altarid ad nordanverdu. 15. Og Kóngurinn Akas baud Uría presti og mælti: á stóra altarinu skaltu upptendra morgun brennifórnirnar og matoffrin á kvøldin, og brennifórnir Kóngsins og hans matoffur og alls landsfólksins og þess drykkoffur, og øllu blódi brennifórna og annara fórna skalt þú á þad støkkva; en hvad eir=altarid áhrærir, þá ætla eg ad hugsa mig um. 16. Og presturinn Uría gjørdi aldeilis eins og Kóngur Akas baud. 17. Og Akas Kóngur braut skildina af bordunum, og tók af þeim skálarnar, og (eir) hafid tók hann burt af eir=nautunum sem stódu undir því, (1 Kóngb. 7, 23. fl). og setti þad á steingólfid. 18. Og hvíldardags gánginn, sem þakid var yfir, er menn høfdu gjørt ad húsinu, og þeim ytri gaungum Kóngsins, snéri hann frá Drottins húsi, sakir Kóngsins í Assýríu. 19. Hvad meira er ad segja af Akas og hvad hann gjørdi, þá er þad skrifad í árbókum Júda Kónga. 20. Akas lagdist hjá sínam fedrum og var grafinn hjá sínum fedrum í Davíds borg, og hans son Esekía vard Kóngur í hans stad a).

V. 19, 2 Kron. 28, 1. V. 20. *a*. 18, 1.

## 17. Kapítuli.

Hósea seinasti Kóngur í Israel. Samverskra uppruni.

1. Á 12ta ári Akas Júda Kóngs, vard Hósea Elason Kóngur í Samaríu yfir Israel, (og ríkti) níu ár. 2. Og hann adhafdist þad sem Drottni illa líkadi; þó ekki eins og þeir Israels Kóngar sem undan honum høfdu verid. 3. Móti honum fór leidángur Salmanassar Assýríu Kóngur og Hósea vard hans þegn og galdt honum skatt. 4. En Assýríu Kóngur vard áskinja um uppreisn af Hosea, því hann hafdi gjørt sendimenn til So, Kóngsins í Egyptalandi, og ekki goldid skatt Assýríu Kóngi eins og ádur árliga; þá tók Assýríu Kóngur hann til fánga, og setti hann bundinn í fángélsi. 5. Og Assýríu Kóngur fór yfir allt landid, og upp til Samaríu, og sat um hana í þrjú ár. 6. Á 9da ári Hósea tók Assýríu Kóngur Samaríu, og flutti Israels menn til Assýríu og fékk þeim bústadi í Hala og Habor, hjá ánni Gósan og í stødum Mediu manna.

7. Og søkum þess ad Israels synir syndgudu móti Drottni sínum Gudi, sem hafdi flutt þá úr Egyptalandi, undan hendi Faraós, Egyptalands Konúngs, og af því þeir óttudust adra Gudi, 8. og geingu eptir sídum þjódanna sem Drottinn rak út frá Israels sonum,

og eptir Israels Konúnga setníngum, 9. og sökum þess ad Israels synir adhöfdust þad med launúng, sem rángt var, móti Drottni þeirra Gudi, og bygdu sér hædir í öllum sínum stödum, frá hirdmanna turnum allt til borganna, 10. og reistu sér súlur og afguda líknesskjur á hvörjum háum hól, og undir hvörju blómgudu tré a), 11. og brendu reykélsi á öllum hædum, eins og þjódirnar, sem Drottinn burt flutti frá þeim, og adhöfdust þetta til ad módga Drottinn; 12. og þjónudu afgudum, hvar um Drottinn hafdi til þeirra sagt: þér skulud ekki gjöra slíkt! 13. Og þó Drottinn, fyrir milligaungu allra sinna spámanna, allra sjáendanna, advaradi Israel og Júda og segdi: snúid til baka frá ydar vondum vegi, og haldid min bodord, mína setnínga og allt þad lögmál, sem eg baud ydar fedrum, og sem eg hefi sendt ydur, med mínum þjónum, spámönnunum; 14. en þeir gégndu ekki, og voru þverbrotnir eins og þeirra fedur, sem ekki trúdu á Drottinn þeirra Gud; 15. og forsmádu hans setnínga og sáttmála sem hann gjördi vid fedur þeirra, og hans vidvaranir, sem hann gaf þeim, og geingu eptir hégómlegum afgudum, og dýrkudu afgudi, og breittu eptir þjódunum sem bjuggu allt í kríngum þá, hvörjum vidvíkjandi Drottinn hafdi bodid, ad þeir skyldu ei breyta sem þær. 16. Og yfirgáfu öll bodord síns Guds, og gjördu sér steypt bílæti, tvo kálfa b), og offur lunda, og tilbádu allann himinsins her og þjónudu Baal. 17. Og létu syni sína og dætur gánga í gégnum eldinn (blótudu sonum sínum og dætrum) og fóru med spáfarir og fjölkýngi, og gáfu sig út til ad gjöra allt sem Drottni illa líkadi, til ad módga hann; 18. þá vard Drottinn (af öllu þessu) ákaflega reidur vid Israel, svo hann útskúfadi þeim frá sínu augliti; ekkért vard eptir nema ein Júda ættkvísl. 19. (Ekki hélt samt Júda heldur bodord Drottins síns Guds, þeir geingu og eptir sidum Israelsmanna, sem þeir höfdu gjört (sér)). 20. Sökum þessa útskúfadi Drottinn allri Israels ætt, og audmýkti þá, og gaf þá í heudur ræníngja, þángad til hann snaradi þeim burt frá sínu augliti. 21. Israel hafdi rifid sig frá Davíds húsi, og tekid til Kóngs Jeróbóam son Nebats, og Jeróbóam snéri Israel frá Drottni og leiddi þá til stórsynda. 22. Og Israelssynir breyttu eptir öllum syndum Jeróbóams, sem hann adhafdist, þeir viku ekki þar frá, 23. þángad til Drottinn útskúfadi Israel frá sínu augliti, eins og hann hafdi talad fyrir munn allra sinna þénara, Spámannanna c), og Israel var fluttur burt úr sínu landi til Assýríu allt til þessa dags.

24. Og Assýríu Kóngur lét (fólk) koma frá Babel og frá Kúta og frá Ava og frá Hemat og frá Sefarvaim, og setti þad í Samaríu stadi, í stadinn fyrir Israelssyni, og þeir lögdu undir sig Samaríu og bjuggu í hennar stödum. 25. Fyrst eptir ad þeir vóru setstir þar ad, óttudust þeir ekki Drottinn, en Drottinn sendi ljón d) medal þeirra, sem drápu nokkra af þeim. 26. Þá sögdu þeir vid Assýríu Kóng: þad fólk sem þú fluttir og létst búa í Samaríu stödum, þekkir ekki lands gudsins dýrkun; því hefir hann sendt ljón medal þeirra, og sjá! þau deyda þá, af því þeir ekki þekkja dýrkun gudsins í landinu. 27. Þá baud Assýríu Kóngur og mælti: farid þángad med einn af prestunum, sem þér fluttud burt þadan, ad þeir fari þángad og búi þar, og hann kénni þeim dýrkun gudsins í landinu. 28. Og svo kom einn af prestunum, sem þeir höfdu flutt burt úr Samaríu, og hann bjó í Betel og kéndi þeim, hvörnig þeir skyldu

V. 10. *a.* 16, 4, 1 Kóng. 14, 23. V. 16. *b.* 1 Kóng. 12, 28. V. 17. v. 31. 21, 6. 23, 10. V. 18. 23, 27. V. 23. *c.* Hós. 1, 6. Devt. 28, 36. 63. f. V. 25. *d.* Lev. 26, 22. Spek. 11 18. 19.

óttast Drottinn. 29. En hvør ættin (þjódin)
gjørdi sér (þaradauki) sína Gudi, og setti þá í
húsin á hædunum, sem Samverskir høfdu gjørt,
hvør ættin í sínum stødum, þar sem þeir bjuggu.
30. Þeir frá Babel gjørdu sér Sukot-Benot;
þeir frá Kut gjørdu sér Nergal; þeir frá Hem-
at gjørdu Asíma, 31. þeir frá Ava gjørdu
Nibehas og Tartak og þeir frá Sefarvaim
brendu syni sína í eldi a) fyrir Adramelek og
Anamelek, Sefarvaims Gudum. 32. Þeir
óttudust og svo Drottinn og settu presta á hæd-
irnar af þeim lítilmótlegustu medal þeirra, og
þeir báru fórnir fyrir þá í húsunum á hædun-
um. 33. Drottinn óttudust þeir, og sínum af-
gudum þjónudu þeir, eptir sidum þeirra þjóda
frá hvørjum þeir voru þángad fluttir. 34.
Allt til þessa dags breita þeir eptir fornum
sid; þeir óttast ekki Drottinn (einann) og gjøra
ei eptir þeim setníngum og sidum, né eptir løg-
málinu og þeim bodordum sem Drottinn gaf
sonum Jakobs, hvørjum hann hafdi gefid nafn-
id Israel. 35. Því Drottinn hafdi gjørt sátt-
mála vid þá og bodid þeim og sagt: þér skulud
einga adra Gudi óttast né tilbidja þá, né þjóna
þeim, né færa þeim fórnir; 36. heldur Drott-
ni sem flutti ydur burt úr Egyptalandi med
miklum krapti og útréttum armlegg; hann skul-
ud þér óttast, hann tilbidja og honum fórnir
færa; 37. og þá setnínga, réttindi, og þad løg-
mál, og þad bodord, sem hann hefir ydur skrif-
ad, skulud þér halda og alltíd eptirlifa og einga
adra Gudi óttast; 38. Og þeim sáttmála sem
eg gjørdi vid ydur skulud þér ekki gleyma, og
einga adra Gudi óttast; 39. heldur skulud þér
óttast Drottinn, ydar Gud, og hann mun frelsa
ydur af hendi allra ydar óvina. 40. En þeir
gégndu því ekki, heldur gjørdu eptir þeirra fyrri
sidum. 41. Og svona óttadist þetta fólk Drott-
inn, og þjónadi líka sínum afgudum; þeirra børn
og barnabørn breita eins og þeirra fedur høfdu
breitt, allt til þessa dags.

## 18. Kapítuli.

Esekía Júda Konúngur.

1. Á þridja ári Hósea sonar Ela, Israels
Kóngs, vard Esekía Konúngur, sonur Akas Júda
Kóngs. 2. Hann hafdi 5 um tvítugt þá hann
vard Kóngur, og ríkti í Jerúsalem 29 ár.
Módir hans hét Abí, dóttir Sakaría. 3. Og
hann gjørdi þad sem Drottni vel þóknad-
ist b), rétt eins og Davíd fadir hans hafdi
gjørt. 4. Hann aftók hædirnar og sund-
urbraut súlurnar (stólpana) og upprætti apt-
ur lundana, og sundurmoladi eirorminn sem
Móses hafdi gjørt c); því allt til þess tíma
høfdu Israelssynir brennt fyrir honum reyk-
elsi, og menn nefndu hann Nehastan. 5. Hann
treysti Drottni Israels Gudi, og eptir hann hef-
ir einginn hans líki verid medal allra Júda
Kónga, og ekki heldur medal þeirra sem fyrir
hann voru. 6. Og hann adhylltist Drottinn,
og frá honum vék hann ekki, og hélt hans
bodord, sem Drottinn hafdi bodid Móses. 7.
Og Drottinn var med honum, og hann breytti
hyggilega í øllu sem hann tók fyrir sig d).
Hann gékk undan Assýríu Kóngi, og var hon-
um ekki undirgéfinn e). 8. Hann bardi á
Filisteum allt til Gesa, og eyddi lunda, bædi
hjardmanna turnana og borgirnar.

9. En á fjórda ári Esekía Kóngs, þad var
hid 7da ár Hósea, sonar Ela, Israels Kóngs,
þá fór Salmanassar Assýríu Kóngur herfør
móti Samaríu og settist um hana f), 10. og
vann hana ad þremur árum lidnum. Á sjøtta

V. 31. *a.* 16, 3. 21, 6. Devt. 18, 10. V. 39. 1 Sam. 12, 24, Sálm: 34, 10. V. 1. 16, 20. 2 Kron. 29, 1. V. 3. *b.* 12, 2. 14, 3. V. 4. *c.* Lev. 21, 8. 9. V. 5. 23, 24. V. 7. *d.* 1 Sam. 18, 14. *e.* Esa. 36, 5. V. 9. *f.* 17, 5. V. 10. 17, 6.

ári Esekía, þad var 9da ár Hóséa Kóngs í
Israel, var Samaría unnin. 11. Og Assýríu
Kóngur flutti Israel burt til Assýríu, til Hala
og Habor vid ána Gosan og í stadi Medíu
manna, 12. af því þeir gégndu ekki raust
Drottins síns Guds, og yfirtródu hans sátt-
mála, allt sem Móses Drottins þénari hafdi
bodid, og hlýddu ekki og gjørdu ekki.
13. En á 14da ári Esekía Júda Kóngs,
fór Sankerib Assýríu Kóngur herfør mót øll-
um Júda borgum og vann þær. 14. Þá
sendi Esekía Júda Kóngur til Assýríu Kóngs
til Lakis og sagdi svo: eg hefi misgjørt, far
ekki med her á hendur mér; eg vil þola þad
sem þú á mig leggur. Þá lagdi Assýríu
Kóngur á Esekía Júda Kóng, þrjú hundrud
vættir silfurs og 30 vættir gulls. 15. Og
Esekía gaf allt þad silfur sem var í Drottins
húsi og í féhirdslu Kóngsins húss. 16. Und-
ir eins tók Esekía af hurdinni fyrir Drottins
musteri og af dyrastøfunum gullid, sem Eseki-
as Júda Kóngur, hafdi búid þá med, og gaf
þad Assýríu Kóngi. 17. En Assýríu Konúng-
ur sendi Tartan a), Rabsaris og Rabsake frá
Lakis til Esekía Kóngs, med mikinn her, til
Jerúsalem, og sem þeir komu til Jerúsalem tóku
þeir sér stødu vid vatns rennur þess efra dík-
is, sem liggur vid þvotta-vallar veginn b).
18. Og þeir kølludu Kónginn. Þá gékk út til
þeirra Elíakim Hilkíason, sem var settur yfir
Kóngsins hús (Marskalk) c) og skrifarinn
Sebna, og Jóa Assafs son, Sagnameistarinn.
19. Og Rabsake sagdi vid þá: talid þó vid
Esekía: svo segir sá mikli Kóngur, Assýríu
Kóngur: hvad er þad fyrir traust sem þú reidir
þig á? 20. Þú segir: þar er rád og máttur
til stríds! á hvørn treistir þú, svo ad þú hefir
fallid frá mér? 21. Sjádu nú, þú reidir þig
á brotinn reirlegg, á Egyptaland, ef einhvør
stidur sig vid hann, geingur hann inní høndina
og stýngst í gégnum hana, svona er Faraó,
Egyptalands Kóngur, øllum sem reida sig á
hann. 22. Og þó þér vildud vid mig segja:
vér treystum Drottni vorum Gudi, er hann þá
ekki sá, hvørs hædir og ølturu Esekía hefir af-
tekid, og talad þad í Júda og Jerúsalem:
frammi fyrir þessu altari skulud þér tilbidja í
Jerúsalem d)? 23. Og gjørdu nú félag vid
minn herra Assýríu Kóng, eg skal láta þig fá
2 þúsund hesta, ef þú gétur lagt til reidmenn
á þá. 24. Og hvørnig gétur þú rekid af
høndum þér einn einasta landstjórnara, einhvørn
þann minsta af þénurum míns herra? og svo
reidir þú þig á Egyptaland, vegna vagnanna
og reidmannanna! 25. Og hugsar þú eg sé
híngad kominn til ad herja á þennan stad án
Drottins (tilhlutunar)? Drottinn hefir til mín
sagt: far þú mót þessu landi, og eydilegg þad.
26. Þá mælti Elíakim sonur Hilkía og
Sebna og Jóa til Rabsake: tala þú Sýr-
lendsku vid þína þénara, því vér skiljum hana,
en tala ekki vid oss Hebresku (Júda mál), fyrir
eyrum fólksins sem stendur á borgarveggnum. 27.
Og Rabsabe sagdi vid þá: hefir minn herra
sendt mig til þíns herra og til þín, til ad tala
þessi ord? og ekki til mannanna sem á veggn-
um sitja, til þess ad eta eiginn saur og drekka
med ydur sitt eigid þvag?
28. Þá gékk Rabsake nær, hrópadi med
hárri raust og taladi á Hebresku (Júda mál),
og sagdi: heyrid ord þess mikla Kóngs, Ass-
ýríu Konúngs! 29. Svo segir Kóngurinn:
látid ekki Esekía draga ydur á tálar, því hann
megnar ei ad frelsa ydur af minni hendi; 30.
látid ei heldur Esekía hughreysta ydur med
trausti til Drottins, þá hann segir: Drottinn

V. 11. 17, 6. V. 13. 2 Kron. 32, 1. Esa. 36, 1. V. 15. 16, 8. 1 Kóng. 15, 18. V. 17. *a.* Esa. 20, 1. *b.* Esa. 7, 3. V. 18. *c.* 1 Kóng. 4, 6. V. 22. *d.* Ex. 20, 24. Devt. 12, 5. 11.

mun bjarga oss, og stadurinn mun ei verda
géfinn í hønd Assýríu Kóngs. 31. Hlustid ekki
á Esekía! því svo segir Assýríu Kóngur: gjør-
id frid vid mig, og komid út til mín; svo skulud
þér fá ad eta, hvør einn af sínu víntré og fíkju-
tré a), og drekka, hvør einn vatn, úr sínum
brunni b). 32. Þángad til eg kém og færi
ydur í annad eins land, og ydar land, þar sem
er korn og must, braud og víngardar, vid-
smjørsvidur og hunáng, ad þér lifid og deyid
ekki. Hlustid ekki á Esekía! því hann tælir
ydur og segir: Drottinn mun bjarga oss!
33. Hafa þá gudir þjódanna frelsad hvør sitt
land af hendi Assýríu Kóngs? 34. Hvar
eru gudir þeirra í Hemat og Arpad? Hvar
gudirnir í Sefarvaim, Hena og Iva, frelsudu
þeir Samaríu af minni hendi? 35. Hvørjir
eru þeir medal allra landa Guda, sem hafi
frelsad sitt land af minni hendi, skyldi Drott-
inn þá frelsa Jerúsalem af minni hendi? 36.
Og fólkid þagdi og svaradi eingu ordi, því
þad var Kóngsins skipun, hann hafdi sagt: þér
skulud ekki ansa honum. 37. Og þeir komu,
Elíakim sonur Hilkia, sem var settur yfir hús-
id, og skrifarinn Sebna, og Sagnameistarinn
Jóa, sonur Asafs, til Esekía í rifnum klædum,
og søgdu honum ord Rabsakes.

## 19. Kapítuli.

Esekías bidur, og verdur dásamlega frelsadur.

1. En sem Esekía Kóngur heyrdi þetta,
reif hann sín klædi, lagdi um sig sekk og gékk
í hús Drottins. 2. Og hann sendi Elíakim,
sem var settur yfir húsid, og skrifarann Sebna
og þá eldstu presta, vafda sekkjum til Spá-
mannsins Esaías c), sonar Amor. 3. Og þeir
søgdu til hans: svo segir Esekía: þessi dagur
er þreyngíngar, refsíngar og hádúngar dagur,
børnin eru komin í burdarlidinn, en eingin
kraptur er til ad fæda. 4. Líklega heyrdi Drott-
inn þinn Gud øll ord Rabsakis, hvørn hans
herra, Assýríu Kóngur, sendi, til ad atyrda
þann lifandi Gud, og Drottinn þinn Gud mun
straffa fyrir þau ord sem hann heyrdi; svo
send þína bæn í hædirnar fyrir leifarnar sem
eptir eru ordnar (af fólkinu). 5. Svo komu
Kóngs Esekías þénarar til Esaías. 6. Og
Esaía sagdi til þeirra: segid svo ydar herra:
svo segir Drottinn: hrædstu ekki þau ord sem
þú heyrdir, med hvørjum Assýríu Kóngs svein-
ar løstudu mig. 7. Sjá! eg vil inngéfa hon-
um anda nokkurn, og hann skal heyra rikti, og
snúa heim í sitt land, og eg skal láta hann
falla fyrir sverdi, í sínu egin landi.

8. Og Rabsake fór til baka og hitti Assýríu
Kóng þar sem hann var ad herja á Libna;
því hann hafdi heyrt ad hann hefdi tekid sig
upp frá Lakis. 9. Þá frétti hann þad um
Tiraka Blálands Kóng, ad menn søgdu: sjá!
hann er lagdur af stád til ad berjast vid þig.
Þá gjørdi hann aptur sendimenn til Esekía og
sagdi: 10. segid Esekía Júda Kóngi: lát ekki
þinn Gud sem þú treystir á, svíkja þig, þar þú
segir: Jerúsalem verdur ekki géfin í hønd Assýríu
Kóngs. 11. Sjá! þú hefir heyrt hvørnig Ass-
ýríu Kóngar hafa farid med øll lønd, hvørsu
þeir hafa eydt þau; og þú skyldir frelsast?
12. Hafa þá gudir þjódanna, sem mínir fed-
ur hafa gjøreydt, frelsad þær, Gosan og Har-
an og Resef og Edens syni í Telassar? 13.
Hvar er Hemats Kóngur, og Arpads Kóngur
og Kóngur stadarins Sefarvaim, í Hena og Iva?

14. Og Esekía tók bréfid úr hendi sendibod-
ans og las þad, og gékk í Drottins hús og út-
breiddi þad fyrir Drottni. 15. Og Esekía
gjørdi bæn sína frammi fyrir Drottni og mælti:

V. 31. *a.* 1 Kóng. 4, 25. *b.* Ordskv. 5, 15. V. 33. Esa. 10, 10. 11. 2 Kron. 32, 13. V. 1. Esa. 37, 1.
V. 2. *c.* Esa. 1, 1. V. 3. Esa. 37, 3. V. 5. Esa. 37, 5. V, 15. Sálm. 80, 2. 99, 1.

Drottinn Gud Israels sem situr yfir Kérúbum, þú ert einn Gud allra jardarinnar Kóngsríkja, þú hefir gjørt himin og jørd. 16. Hneig Drottinn þitt eyra, og heyr! opna þín augu, og sjá! og heyr Sankeribs ord, sem hann sendi til ad smána med þann lifanda Gud. 17. Drottinn! sannarlega hafa Assýríu Kóngar eydilagt þjódir og þeirra lønd, 18. og hafa kastad Gudum þeirra í eld; því þeir eru eingir Gudir, heldur handaverk manna, tré og steinn, þeir hafa afmád þá. 19. En Drottinn vor Gud, hjálpa oss af hans hendi, svo øll ríki jardarinnar kannist vid ad þú, Drottinn! ert sá eini Gud.

20. Þá sendi Esaía Amosson til Esekía og mælti: svo segir Drottinn Israels Gud: eg hefi heyrt þad sem þú badst mig um, vidvíkjandi Assýríu Kóngi Sankerib. 21. Þad er þad ord sem Drottinn hefir talad um hann: þig forsmáir, ad þér hædist júngfrúin Síonsdóttir; Jerúsalems dóttir skékur høfudid ad þér. 22. Hvørn hefir þú smánad og lastad, og móti hvørjum upplypt þinni raust? þú hefir hafid þín augu hátt gégn Israels heilaga (Gudi)! 23. Þú hefir látid þinn sendiboda smána herrann og sagt: med minna vagna grúa sté eg uppá fjallhædirnar, Libanons hlídar, og eg hjó upp þess (fjalls) Sedrusvid og einvala furutré, og ætla mér ad koma til Karmelsskógar ytstu heimkynna. 24. Eg gref eptir útlendum vøtnum og drekk þau, og þurka med sporum minna fóta allar djúpar ár.

25. Hefir þú ekki heyrt ad eg fyrir laungu hefi þetta gjørt, og frá gømlum tídum undirbúid þad? Nú hefi eg látid þad koma (þér í koll) ad þú gjørdir rambyggdar borgir ad rofhrúgum. 26. Og þeirra innbúar skélfdust magnlausir, og urdu til skammar; þeir urdu sem gras akursins, og grænar jurtir, sem gras á þøkum, og brent korn ádur enn þad hefir nád sínum vexti. 27. En eg þekki þína setu, og þinn útgáng og inngáng, og þinn ofsa gégn mér. 28. Vegna þíns ofsa vid mig, og vegna þess þinn ofmetnadur er kominn mér til eyrna, set eg minn hríng í þínar nasir, og minn bitil þér í munn, og leidi þig til baka þann veg sem þú ert kominn. 29. Og þetta skal vera þér til merkis: eitt árid átud þér þad sjálfvaxna, og annad árid þad sjálfvaxna, og á þridja árinu skulud þér sá og uppskéra, og planta vínvid og eta hans ávøxt. 30. Þeir frelsudu af Júda húsi, þeir eptirordnu, skulu héreptir festa rætur ad nedan, og bera ávexti ad ofan. 31. Því frá Jerúsalem skulu leifar koma, og frelsadir frá Síonsfjalli; vandlæti Drottins allsherjar skal gjøra slíkt a).

32. Því segir Drottinn svo um Assýríu Kóng: hann mun ei koma í þenna stad, eingri ør þángad inn skjóta, og eingum skildi ad honum snúa, og eingann vegg móti honum upp hlada. 33. Þann veg sem hann kémur mun hann fara til baka, og ekki koma í þenna stad, segir Drottinn. 34. Eg ver þenna stad og frelsa hann, mín vegna, og vegna míns þénara Davíds.

35. Og á sømu nótt fór Eingill Drottins, og sló í hel í herbúdum Assýriskra 185 þúsundir manns. Og er menn risu árla daginn eptir, sjá! þá lá þar allt fullt af daudra manna líkum. 36. Þá tók Sankerib Assýríu Kóngur sig upp, fór burt, og snéri til baka og settist ad í Niníve. 37. Og sem hann badst fyrir í húsi Nisroks, síns Guds, unnu synir hans Adramelek og Sareser á honum med sverdi;

V. 23. Es. 37, 24. V. 26. Sálm. 129, 6. Es. 37, 27. V. 24. Djúpar ár. Adrir lesa: Egyptalands ár. V. 28. Es. 37, 29. V. 29. Es. 37, 30. V. 31. *a.* Es. 9, 7. V. 34. 20, 6. V. 35. Es. 37, 36. 1 Makk. 7, 41.

en þeir flúdu í landid Ararat. Og Asarhad-
don hans son vard Kóngur í hans stad.

## 20. Kapítuli.

Esekía sjúkdómur, bati, hégómaskapur og daudi.

1. Á þeim tíma vard Esekía daudsjúkur.
Þá kom Esaía Spámadur Amosson, til hans,
og mælti vid hann: svo segir Drottinn: rád-
stafa þínu húsi, því þú munt deya, og ekki
lifa. 2. Þá snéri hann sínu andliti til vegg-
jar, bad til Drottins og mælti: 3. æ Drott-
inn! minnstu þó þess ad eg hefi geingid fyrir
þér med trúmennsku og med einlægu hjarta, og
gjørt þad sem þér vel líkadi. Og Esekía grét
mikid. 4. En ádur enn Esaía var kominn þad-
an í midjann stadinn, kom ord Drottins til
hans svo látandi: 5. Snú vid aptur og seg
til Esekía, høfdíngja míns fólks: svo segir
Drottinn, Gud fødur þíns Davíds: eg hefi
heyrt þína bæn, sjed þín tár, eg vil láta þér
batna, á þridja degi skaltu gánga í Drottins
hús. 6. Og eg bæti vid æfi þína 15 árum,
og af hendi Assýríu Kóngs vil eg frelsa þig og
þenna stad, og eg vil verja þenna stad, vegna
mín, og vegna míns þénara Davíds. 7. Og
Esaía mælti: komid med fíkjukøku! og menn
komu med hana og løgdu hana á meinid; þá
batnadi honum.

8. Og Esekía sagdi vid Esaía: hvørt er
merki þess ad Drottinn vilji lækna mig, og ad
eg muni gánga í Drottins hús á þridja degi?
9. Og Esaía svaradi: þad sé þér merki af
Drottni, ad Drottinn muni gjøra þad sem hann
hefir talad: skal skugginn gánga 10 línur á-
fram eda 10 línur apturábak? 10. Og Esekía
sagdi: þad er hægt fyrir skuggann ad lækka um
10 línur, ekki þad, heldur skal skugginn gánga
10 línur apturábak. 11. Þá kalladi Spámad-
urinn Esaía til Drottins, og hann lét skuggann
gánga á Sólskífunni apturábak 10 línur, þar-
sem hann var nidurgeinginn, á Akabs sólskífu.

12. Um þetta leiti sendi Berodak Baladan,
sonur Baladans, Kóngur í Babel, bréf og gáf-
ur til Esekía, af því hann hafdi heyrt ad Esekía
hefdi verid sjúkur. 13. Og Esekía fagnadi
þeim vel, og sýndi þeim allt sitt féhyrdsluhús,
silfrid og gullid og ilmjurtirnar, og þad dýra
vidsmjør, og allt sitt týa hús, og allt þad sem
var í féhyrdslum, þad var ekkért til, sem Esekía
ekki sýndi, í hans húsi og í øllu hans veldi.
14. Þá kom Spámadurinn Esaía til Kóngs
Esekía og mælti til hans: hvad hafa þessir
menn sagt þér? Og Esekía svaradi: úr fjar-
lægu landi eru þeir komnir, frá Babel. 15.
Og hann mælti: hvad hafa þeir sjed í þínu
húsi? Og Esekía svaradi: allt sem í mínu húsi
er, hafa þeir sjed; ekkért er í mínum hirdslum,
sem eg ekki hefi sýnt þeim.

16. Þá mælti Esaía vid Esekía: heyr Drott-
ins ord! 17. sjá! þeir dagar munu koma ad
allt, sem í þínu húsi er, verdur flutt burt, og
þad sem þínir fedur hafa safnad, allt til þessa
dags, til Babel; ekkért mun eptir verda, segir
Drottinn. 18. Og af þínum sonum sem af
þér koma, sem þú munt eignast, munu þeir taka
nokkra, ad þeir verdi herbergjasveinar í høll
Kóngsins í Babel. 19. Og Esekía sagdi til
Esaía: gott er þad Drottins ord sem þú hefir
talad! og hann mælti: gott og vel! eg óska ad
eins ad lukka og fridur sé medan eg lifi! 20.
En hvad meira er ad segja af Esekía og øllum
hans hreystiverkum, og øllu sem hann gjørdi,

V. 1. Es. 38, 1. V. 2. Es. 38, 2. V. 3. Es. 38, 3. V. 4. Es. 38, 4. V. 5. Es. 38, 5. V. 6. Es. 37, 35. 38, 6. V. 7. Es. 38, 21. 22. V. 8. Es. 38, 22. V. 12. Es. 39, 1. V. 13. Es. 39, 2. V. 14. Es. 39, 3 V. 15. Es. 39, 4. V. 16. og 17. Es. 39, 5. 6. Jer. 20, 5. V. 18. Es. 39, 7. V. 19. 1 Sam. 3, 18. Esa. 39, 8. V. 20. 2 Kron. 29, 1—32, 30.

og hvørsu hann tilbjó díkid og vatnsrennurn-
ar, og leiddi vatnid inní stadinn, þá stendur
þad skrifad í árbókum Júda Kónga. 21. Og
Esekía lagdist hjá sínum fedrum, og Manasse
hans son vard Kóngur í hans stad a).

## 21. Kapítuli.

*Manasse og Amon, Júda Kóngar.*

1. Tólf ára gamall var Manasse þá hann
vard Kóngur og 55 ár ríkti hann í Jerúsalem,
en módir hans hét Hefsíba. 2. Og hann
gjørdi þad sem Drottni illa líkadi, líkt vidur-
stygd þjódanna sem Drottinn hafdi rekid burt
frá Israels sonum. 3. Og hann bygdi aptur
þær hædir, sem Esekía fadir hans hafdi afmád,
hann reisti Baal altari, gjørdi blótlunda, eins
og Akab Israels Kóngur hafdi gjørt, og til-
bad allann himinsíns her og þjónadi honum.
4. Og hann bygdi altari í Drottins húsi, um
hvørt Drottinn hafdi sagt: í Jerúsalem vil eg
setja mitt nafn a). 5. Og hann bygdi altari
øllum himinsíns her í bádum forgørdunum
Drottins húss. 6. Og hann fórnfærdi syni
sínum á eldi, fór med kukl og teikna útþýd-
íngar, setti menn til ad leita frétta af daudum
og fjølkýngis menn, og adhafdist margt íllt
fyrir Drottins augliti, honum til módgunar.
7. Og hann setti blótskógar skurdgod (Astarte
bílæti), er hann hafdi gjørt, í þad hús, um
hvørt Drottinn hafdi sagt vid Davíd og hans
son Salómon: í þessu húsi og í Jerúsalem,
sem eg hefi valid af øllum Israels ættkvíslum,
vil eg setja nafn mitt ad eilífu. 8. Og eg vil
ei framar láta Israels fót gánga úr landinu,
sem eg gaf þeirra fedrum, ef þeir géfa því gaum
ad breita algjørlega eins og eg hefi bodid
þeim, og eptir øllum þeim løgum, sem Móses
minn þénari baud þeim. 9. En þeir hlýddu
ekki, og Manasse leiddi þá afvega, svo þeir
breittu verr, en þær þjódir sem Drottinn hafdi
afmád frá Israels sonum.

10. Og Drottinn taladi fyrir sína þénara,
Spámennina og mælti: 11. sakir þess ad
Manasse Júda Kóngur b) hefir adhafst þessa
vidurstygd, verri enn allt þad sem Amorítar
hafa gjørt, sem á undan honum vóru, og med
sínum skurdgodum komid Israel til ad syndga:
12. því segir Drottinn Israels Gud svo: sjá!
eg leidi ólukku yfir Jerúsalem og Júda, svo
ad hvørjum sem heyrir, skal fyrir bádum eyrum
gélla. 13. Eg vil draga yfir Jerúsalem Sam-
aríu mælivad, og Akabs blýlód, og sópa Je-
rúsalem burt, eins og menn sópa af diskum;
þá menn hafa þad gjørt, hvolfa menn þeim.
14. Og eg yfirgéf leyfar minnar eignar, og
géf þá í hønd þeirra óvinum, ad þeir verdi
rán og rupl allra sinna óvina; 15. vegna þess
þeir hafa adhafst þad sem mér illa líkadi og
módgad mig, frá þeim degi ad eg flutti þá
úr Egyptalandi allt til þessa dags. 16. Líka
úthelti Manasse miklu saklausu blódi, þángad
til ad hann fyllti Jerúsalem med því, frá ein-
um enda til annars, auk þess ad hann med
sínum syndum kom Israel til ad syndga, svo
þeir gjørdu þad sem Drottni illa líkadi. 17.
En hvad meira er af Manasse ad segja og øllu
sem hann gjørdi, og hans syndum er hann
drýgdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Júda
Kónga. 18. Og Manasse lagdist hjá sínum
fedrum og var grafinn í jurtagardinum hjá
sínu húsi, í gardi Usa; og Amon hans son vard
Kóngur í hans stad c). 19. Amon hafdi tvo
um tvítugt þá hann vard Kóngur, og ríkti tvø
ár í Jerúsalem. Módir hans hét Mesúlemet d),

V. 21. Kap. 21, 1. V. 1. 2 Kron. 33, 1. V. 3. 17, 16. 1 Kóng. 16, 30. 33. V. 4. *a.* Devt. 12, 5. 1 Kóng. 8, 29. V. 6. Lev. 18, 21. 20, 2. V. 11. *b.* Jer. 15, 4. V. 12. Jer. 19, 3. V. 16. 24, 4. V. 17. 2. Kron. 33, 1. — 20. V. 18. *c.* 1 Kron. 3, 14. V. 19. *d.* 2 Kron. 33, 21.

var dóttir Harus frá Jótba. 20. Hann ad-
hafdist þad sem Drottni illa líkadi, eins og Man-
asse fadir hans hafdi gjørt, 21. og gékk ál-
gjørlega á þeim vegum sem fadir hans hafdi
gengid, og þjónadi godum sem fadir hans hafdi
þjónad, og tilbad þau, 22. og yfirgaf Drott-
inn, sinna fedra Gud, og gékk ekki á vegum
Drottins. 23. Og Amons þegnar samsórust
móti honum, og drápu Kónginn í hans húsi.
24. En landsfólkid drap alla þá samsvørnu
móti Amon Kóngi, og landsfólkid gjørdi Jósía
hans son ad Kóngi í hans stad. 25. En hvad
meira er ad segja um Amon, hvad hann gjørdi,
þá stendur þad skrifad í árbókum Júda Kónga.
26. Og menn grófu hann í hans grøf í gardi
Usa, og Jósía hans son vard Kóngur í
hans stad a).

## 22. Kapítuli.

Jósía Kóngur. Løgbókin finnst.

1. Jósía var 8 ára þá hann vard Kóng-
ur, og 30 ár ríkti hann í Jerúsalem; en módir
hans var Jedída dóttir Adaja frá Baskat. 2.
Og hann gjørdi þad sem rétt var fyrir Drott-
ins augsýn, og gékk á vegum fødur síns Da-
víds, og vék hvørki til hægri né vinstri b).
3. En á 18da ári Kóngsins Jósía, sendi Kon-
úngurinn Safan son Asalía, sonar Mesúlams,
skrifarann, í Drottins hús, og sagdi: 4. gakk
til høfudprestsins Hilkia, ad hann taki af þeim
peníngum, sem innkomid hafa í Drottins hús,
sem dyraverdirnir hafa safnad af fólkinu, 5.
og ad menn afhendi þá þeim mønnum, sem
teknir eru í Drottins hús, ad þeir gési þá þeim
mønnum sem verkid vinna, í Drottins húsi, til
ad bæta þad hrørnada á húsinu, 6. timbur-
mønnunum, byggínga mønnunum, múrurunum,
til ad kaupa fyrir vid og høggna steina, til
endurbótar húsinu; 7. Þó reikni madur ekki
vid þá peníngana, er þeim verda afhendtir, því
þeir fara med þá sem þeir vita best. 8. Þá
mælti sá ædsti prestur Hilkia vid skrifarann Saf-
an: eg hefi fundid løgbókina í Drottins húsi.
Og Hilkia fékk Safani bókina, og hann las
hana. 9. Og skrifarinn Safan kom til Kóngs-
ins og sagdi Kóngi frá og mælti: þínir þjónar
hafa látid peníngana af hendi, sem voru í
Drottins húsi, og hafa feingid þeim í hønd,
sem verkid vinna, sem teknir eru til þess í
Drottins hús. 10. Og skrifarinn Safan sagdi
frá þessu Kónginum og mælti: presturinn Hilk-
ia hefir feingid mér bók, og Safan las hana
fyrir Kónginum. 11. En sem Kóngur heyrdi
ord løgmálsbókarinnar, reif hann sín klædi.
12. Og Kóngur baud prestinum Hilkia og A-
hikam syni Safans og Akor syni Mikaja og
Safan skrifara, og Asaía Kóngsins þénara þetta:
13. farid og spyrjid Drottinn fyrir mig og
fyrir fólkid og fyrir allt Júda land, um ord þeirrar
fundnu bókar. Því mikil er reidi Drottins
sem yfir oss er upptendrud, sakir þess ad vorir
fedur, hafa ekki hlýdt ordum þessarar bókar,
og ekki aldeilis breitt, sem oss er fyrirskrifad.
14. Þá geingu þeir presturinn Hilkia og Ahik-
am, og Akbor og Safan og Asaja til spákon-
unnar Hulda, konu Sallum sonar Tikva, son-
ar Harhas, sem geymdi klædin, (en hún bjó í
Jerúsalems ødrum parti) og þeir tøludu vid
hana.

15. Og hún sagdi vid þá: svo segir Drottinn
Israels Gud: segid þeim manni sem sendi ydur
til mín: 16. svo segir Drottinn: sjá! eg leidi
ólukku yfir þenna stad og hans innbúa, øll ord
bókarinnar sem Júda Kóngur hefir lesid. 17.

V. 25. 2 Kron. 33, 21. fl. V, 26. *a.* 2 Kron. 3, 14. V. 2. Jós. 23, 6. Ordskv. 4, 27. V. 4. 12, 9 — 11. V. 5. 12, 11. 2 Kron. 34, 10. V. 7. 12, 15. V. 8. 2 Kron. 34, 15. V, 9. 2 Kron. 34, 16. 17. V. 10. 2 Kron. 34. 18. V. 11. Kron. 34, 19. og s. fr.

Sökum þess þeir hafa yfirgéfid mig og brent reykélsi fyrir ödrum gudum, til ad módga mig med öllum verkum sínna handa, þá er mín reidi upptendrud yfir þessum stad, og mun ekki slokkna. 18. En segid Júda Kóngi sem sendi ydur til ad spyrja Drottinn: svo segir Drottinn Israels Gud: hvad þau ord áhrærir sem þú hefir heyrt, 19. þá, af því þitt hjarta komst vid, og þú audmýktir þig fyrir Drottni, þá þú heyrdir hvad eg hafdi talad á móti þessum stad og hans innbyggjurum, ad þeir skyldu verda ad eydileggíng og bölvan; og af því þú reifst þín klædi og grétst fyrir mér; svo hefi eg bænheyrt þig, segir Drottinn. 20. Sjá! þar fyrir vil eg safna þér til þinna fedra, og þú skalt komast í þína gröf med fridi, og þín augu skulu ekki sjá alla þá ólukku, sem eg leidi yfir þennann stad. Og þeir færdu Kónginum svar.

## 23. Kapítuli.

Jósía leidréttir margt. Jóakas og Jóakim Kóngar.

1. Þá sendi Konúngurinn og safnadi ad sér öllum öldúngunum í Júda og Jerúsalem. 2. Og Kóngurinn gékk í Drottins hús, og allir Júda menn og allir Jerúsalems innbúar med honum, og prestarnir og spámennirnir og allt fólkid, smáir og stórir, og hann las fyrir þeirra eyrum öll ord sáttmálsbókarinnar sem fannst í Drottins húsi. 3. Og Kóngur stód vid stólpann og gjördi sáttmála fyrir Drottins augliti, ad adhyllast Drottinn, ad halda hans bod, lög og setnínga af öllu hjarta og allri sálu, til ad fullnægja þeim ordum sáttmálans sem skrifud stódu í þessari bók. Og allt fólkid gékk ad þessum sáttmála.

4. Og Kóngurinn baud Hilkía höfudprestinum og enum ódæðri prestum, og dyravördunum, ad taka burt úr Drottins musteri öll áhöld sem höfdu verid gjörd fyrir Baal og Astarte og allann himinsins her; og hann brendi þau fyrir utan Jerúsalem á Kedrons velli, og askan þar af var flutt til Betel a). 5. Og hann afsetti afguda prestana, sem Júda Kóngar höfdu sett, sem brendu reykélsi á hædunum í Júda borgum og í kríngum Jerúsalem, og þá sem brendu reykélsi fyrir Baal, sólu, túngli og himinmerkjunum og fyrir öllum himinsins her. 6. Og hann tók burt Astartis bílæti úr Drottins húsi og flutti úr Jerúsalem og brendi þad í Kedrons dal, og sundurmoladi í Kedronsdal og strádi öskunni yfir grafir almúga manna. 7. Og hann braut nidur þau saurlífis hús, sem voru hjá Drottins húsi, hvar konur ófu tjalddúka fyrir Astarte. 8. Og hann lét alla presta koma úr Júda stödum, og vanhelgadi hædirnar hvar prestarnir höfdu brennt reykélsi, frá Geba til Berseba og reif nidur hædirnar fyrir borgarhlidunum, líka þær sem voru fyrir dyrum Jósúa, stadar-fógétans, á vinstri hönd vid borgar hlidid. 9. Þó fórnudu hædanna prestar ekki á Drottins altari í Jerúsalem, heldur átu ósýrd braud med sínum brædrum. 10. Og hann vanhelgadi Tófel í Hinnoms barna dal, ad einginn þadanaf skyldi láta í eldinn fyrir Molok, son eda dóttur. 11. Hann tók líka í burt þá hesta sem Júda Kóngar höfdu helgad sólinni, hjá gánginum ad Drottins húsi, vid hirdmannsins Netanmeleks bústad sem var í (Parvarim), forstadnum; og vagna sólarinnar brendi hann med eldi. 12. Og þau ölturu sem voru á þakinu á Akabs sal, sem Júda Kóngar höfdu byggt, og ölturu sem Manasse hafdi reist í bádum forgördum Drottins húss, reif Kóngurinn nidur og lét sem skjótast flytja þadan og kastadi þeirra ösku í Kedrons dal.

V. 3. 2 Kron. 15, 12. V. 4. *a.* 1 Kóng. 12, 29. V. 10. Kap. 21, 6. Lev. 18, 21. 20, 5. Devt. 18, 10. Sálm. 106, 37. Jer. 7, 31. 32, 35. Ez. 16, 20. 36. V. 13. 1 Kóng. 11, 7. 8. 33.

13. Og þær hædir, sem voru framundan Jerúsalem, hægramegin (sunnanvert) vid eydileggíngar fjallid og hvørjar Salómon, Israels Kóngur, hafdi byggt Sídons manna leida godi Astarte, og Kamos Móabítanna vidurstygd, og Milkom vidbjód Ammons sona, vanhelgadi Kóngurinn. 14. Og hann sundurbraut súlurnar og upprætti blótlundana og fyllti þeirra pláts med manna beinum.

15. Sømuleidis reif hann nidur altarid í Betel, hædina, er Jeróbóam sonur Nebats, hafdi byggt, sá sem kom Israel til ad syndga, bædi þad sama altari og hædina reif hann nidur, og brendi hædina, sundurmoladi hana í rik, og brendi lundinn. 16. Og Jósía litadist um og sá þar grafir sem voru á enu sama fjalli; þá sendi hann og lét sækja beinin í grafirnar, og brendi þau á altarinu, og vanhelgadi þad; eptir ordi Drottins, sem Gudsmadurinn kunngjørdi, sá sem bodadi þetta (1 Kgb. 13, 2.) 17. Og hann mælti: hvada líksteinn er þarna sem eg sje? og borgarmennirnir svørudu honum: þad er grøf þess Gudsmanns a) sem kom frá Júda, og kunngjørdi þad sem þú hefir nú gjørt vid altarid. 18. Og hann mælti: látid hann vera, einginn ónádi hans bein! og hans bein frelsudu líka bein spámannsins sem kom frá Samaríu b). 19. Jósía tók einneginn burtu øll hæda húsin í Samaríu borginni, sem Israels Kóngar høfdu byggt til módgunar (Drottni) og fór med þau aldeilis eins og í Betel. 20. Og hann fórnfærdi alla hædanna presta sem þar voru á ølturunum og brenndi á þeim manna bein, og svo fór hann heim aptur til Jerúsalem. 21. Og Kóngurinn baud øllu fólkinu og mælti: haldid Drottni ydar Gudi Páska eins og skrifad stendur í þessari sáttmáls bók. 22. Því eingir slíkir páskar høfdu verid haldnir frá døgum Dómaranna, sem dæmt høfdu Israel, og á øllum tímum Israels Kónga og Júda Kónga; 23. en á 18da ári Jósía Kóngs voru þessir páskar haldnir Drottni í Jerúsalem. 24. Og Jósía afmádi þá sem leitudu frétta af daudum, og spásagnarmenn, skurdgod c) og afgudi og alla vidurstygd, sem fannst í Júda landi og Jerúsalem, til ad fullnægja løgmálsins ordum, sem stódu skrifud í þeirri bók, er Hilkía prestur hafdi fundid í Drottins húsi d). 25. Einginn Kóngur hafdi verid hans maki á undan honum, sem snéri sér svo til Drottins af øllu hjarta og allri sálu og af øllum mætti, algjørlega eptir Mósis løgmáli; og eptir hann hefir ekki hans líki verid. 26. Þó hvarf Drottinn ekki frá sínni miklu reidi, af hvørri hann var upptendradur gégn Júda, sakir allrar þeirrar módgunar, med hvørri Manasse hafdi egnt hann til. 27. Og Drottinn sagdi: Eg vil burtskúfa Júda frá mínu augliti eins og eg hefi burtskúfad Israel, og eg burtsnara þessari borg Jerúsalem, sem eg hefi útvalid, og því húsi, um hvørt eg sagdi: mitt nafn skal þar búa e). 28. En hvad meira er af Jósía ad segja og af øllu sem hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Júda Kónga f).

29. Á hans døgum fór Faraó Nekó, Egyptalands Kóngur g), herfør mót Assýríu Kóngi til árinnar Frat, og Kóngur Jósía fór til fundar vid hann og (hann) drap hann í Megiddo h) þegar hann var búinn ad sjá hann. 30. Og hans menn fluttu hann daudann á vagni frá Megiddo og til Jerúsalem og grófu hann í sínni grøf. Og landsfólkid tók Jóakas i) son Jósía, og smurdi hann, og gjørdu ad Kóngi í stad fødur síns.

---

V. 17. *a.* 1 Kóng. 13, 30. V. 18. *b.* 1 Kóng. 13, 31. V. 21. 2 Kron. 35, 1. fl. V. 22. 2 Kron. 35, 18. V. 24. *c.* Gen. 31, 19. *d.* Kap. 22, 8. V. 27. *e.* 1 Kóng. 8, 29. 9, 3. V. 28. *f.* 2 Kron. 34, 1. fl. V. 29. *g.* 2 Kron. 35, 20. *h.* Jós. 17, 11. V. 30. *i.* 2 Kron. 36, 1. nefnist einnin Sallum Jer. 22, 11.

31. Jóakas hafdi þrjá um tvítugt, þá hann vard Kóngur, og ríkti þrjá mánudi í Jerúsalem. Módir hans hét Hamútal, dóttir Jeremías frá Libna. 32. Hann gjørdi þad sem Drottni ílla líkadi algjørlega sem fedur hans høfdu gjørt. 33. Og Faraó Nekó lét binda hann a) í Ribla í landinu Hemat, ad hann skyldi ei framar ríkja í Jerúsalem og lagdi bætur á landid, 100 vættir silfurs og 10 vættir gulls. 34. Og Faraó Nekó gjørdi Elíakim, Jósía son, Kóng í Jerúsalem, í stad fødur hans og breytti nafni hans, og lét hann heita Jójakim; en hann fór med Jóakas til Egyptalands, og þar dó hann b). 35. Og Jójakim gaf Faraó silfur og gull; lagdi samt skatt á landid, til þess ad géta goldid peníngana, eptir Faraós skipun; af sérhvørjum á medal fólksins í landinu tók hann silfur og gull eptir hans efnum, til ad svara því Faraó Nekó.

36. Jójakim hafdi 5 um tvítugt, þá hann vard Kóngur og ríkti 11 ár í Jerúsalem; en módir hans hét Sebuda og var dóttir Pedaja frá Ruma. 37. Og hann gjørdi þad sem Drottni illa líkadi, rétt eins og hans fedur høfdu gjørt.

## 24. Kapítuli.

Jójakim og Jójakin Júda Kóngar samt Sedekía.

1. Á hans døgum kom Kóngurinn í Babel Nebúkadnesar, herfør, og Jójakim vard honum undirgéfinn í 3 ár, en gékk undan honum aptur. 2. Þá sendi Drottinn móti honum her úr Kaldeu, her af Sýrlandi, Móabíta her, og Ammonssona her, til Júda ríkis sendi hann þenna her til ad eydileggja þad eptir ordi Drottins, sem hann hafdi talad fyrir munn sínna þjóna Spámannanna. 3. Sannarlega fór svo fyrir Júda ríki eptir Drottins bodi, til ad koma því burt frá hans augliti, sakir Manasse synda, sakir alls þess sem hann hafdi gjørt c), 4. og líka sakir þess saklausa blóds sem hann úthellti, og uppfyllti Jerúsalem med saklausu blódi; og Drottinn vildi ekki fyrirgéfa. 5. En hvad meira er ad segja af Jójakim, og hvad hann gjørdi, þá stendur þad skrifad í árbókum Júda Kónga d). 6. Og Jójakim lagdist hjá sínum fedrum, og Jójakin hans son vard Kóngur í hans stad. 7. En Egyptalands Kóngur fór ei framar úr sínu landi; því Kóngurinn í Babel hafdi tekid allt, sem Egyptalands Kóngar áttu, frá Egyptalands læk, til árinnar Frat.

8. Jójakin var 18 ára gamall þá hann vard Kóngur, og ríkti þrjá mánudi í Jerúsalem; en módir hans hét Nehusta, dóttir Elnatans í Jerúsalem. 9. Og hann gjørdi þad sem Drottni illa líkadi, rétt eins og fadir hans hafdi gjørt. 10. Á sama tíma komu þjónar Nebúkadnesar Kóngs í Babel, med her ad Jerúsalem, og stadurinn var umsetinn. 11. Og Nebúkadnesar Kóngur í Babel kom til stadarins, medan hans þjónar umsátu hann. 12. Þá gékk Jójakin, Júda Kóngur út til Kóngsins í Babel, hann og hans módir og hans þénarar og herforíngjar, og hans hirdmenn; og Kóngurinn í Babel tók hann til fánga á 8da ári hans ríkisstjórnar. 13. Og hann tók þadan alla fjársjódu Drottins húss og alla fjársjódu Kóngsins húss; hann tók og gullbúnadinn af øllum áhøldum, sem Salómon Israels Kóngur hafdi látid gjøra í Drottins húsi, eins og Drottinn hafdi talad. 14. Og hann flutti burt alla Jerúsalem, og alla herforíngja og allt stridsfólk, 10 þúsundir voru burtfluttar, allir timburmenn og smidir; ekkért var eptir, nema almúga fólkid í landinu. 15. Og hann flutti Jójakin burt til Babel; og módur Kóngsins og

V. 33. *a.* Esek. 19, 4. V. 34. *b.* Jer. 22, 12. V. 3. *c.* Jer. 15, 4. V. 5. *d.* 2 Kron. 36, 4. fl. V. 10. 2 Kron. 36, 6. Dan. 1, 1.

konur Kóngsins, og hans hirdmenn, og alla
gøfuga menn í landinu hertók hann, og flutti
frá Jerúsalem til Babel; 16. og allt stríds-
fólk, 7 þúsund manns, og þúsund timburmenn
og smidi, alla vopnfæra, og til stríds hæfileza,
þá hertók Kóngurinn í Babel, og flutti frá
Jerúsalem til Babel. 17. Og Kóngurinn af
Babel a) gjørdi Metanía, hans fødur bródur,
ad Kóngi í hans stad, og breitti hans nafni og
kalladi hann Sedekía b).

18. Sedekía hafdi einn um tvítugt þá hann
vard Kóngur og 11 ár ríkti hann í Jerúsalem;
en módir hans hét Hamítal, dóttir Jeremía
frá Líbna. 19. Og hann gjørdi þad sem Drottni
illa líkadi, rétt eins og Jójakim hafdi gjørt.
20. Því sakir Drottins reidi gékk þad svo Jerú-
salem og Júda, þángad til hann burtsnaradi
þeim frá sínu augliti. Og Sedekía gékk undan
Kónginum af Babel.

## 25. Kapítuli.

Jerúsalem unnin. Gedalía drepinn.

1. Á níunda ári hans ríkisstjórnar, á 10da
degi þess 10da mánadar, kom Nebúkadnesar,
Kóngur í Babel, hann og allur hans her til
Jerúsalem, og settist um hana, og þeir bygdu
hervirki allt í kríngum hana. 2. Og stadurinn
var umsetinn þángad til á 11ta ári Sedekía
Kóngs. 3. En á 9da degi í (fjórda) mánudi
var húngrid ordid mikid í stadnum, og þar var
ekkért braud fyrir landsfólkid. 4. Þá var brot-
ist inní stadinn, og allur herinn flúdi um nótt-
ina, út um hlidid milli beggja veggjanna hjá
Kóngsins gardi; en Kaldeumenn láu allt í kríng-
um stadinn, og Kóngur flúdi veginn sem liggur
út til sléttlendisins. 5. En Kaldeumanna her-
inn ellti Kónginn, og nádi honum á sléttlendinu
hjá Jerikó, og allur hans her tvístradist frá
honum. 6. Og þeir hertóku Kónginn, og
færdu hann Kónginum af Babel í Ribla, og
løgdu dóm á hann. 7. Og þeir slátrudu Se-
dekía sonum fyrir hans augum c), og blindadi
Sedekía á hans augum d), og bundu hann vid-
jum og fluttu hann til Babel.

8. Og í fimta mánudi, á 7da degi mánad-
arins, þad var 19da ár Kóngs Nebúkadnesar,
Kóngs í Babel, kom Nebúsaradan foríngi fyrir
lífvaktinni, þénari Kóngsins í Babel, til Jerú-
salem, 9. og brenndi Drottins hús og Kóngs-
ins hús; og øll hús í Jerúsalem, øll stór hús
brendi hann med eldi. 10. Og Jerúsalems
veggi allt um kríng reif allur Kaldeumanna her
nidur, sá sem var med foríngja lífvaktarinnar.
11. Og leifar fólksins, sem eptir voru ordnar
í stadnum, og strokumenn þá sem hlaupid høfdu
til Kóngsins í Babel, og allan annann fólks-
fjøldann, flutti Nebúsaradan, foríngi lífvaktar-
innar, í burtu. 12. En af því ódædra fólki í
landinu lét foríngi lífvaktarinnar eptir verda,
víngardsmenn og bændur. 13. Og Kaldeu
menn brutu í sundur eirstólpana í Drottins húsi
og bordin og eirhafid í Drottins húsi, og fluttu
eirid þar af til Babel. 14. Og pottana og
pønnurnar og knífana og bikarana og øll eir
áhøldin sem voru brúkud vid þjónustugjørdina,
tóku þeir. 15. Og glódarkérin, og fórnarboll-
ana sem voru af gulli gull, og af silfri silfur,
tók foríngi lífvaktarinnar. 16. Þá tvo stólpa
og þad eina haf og bordin, sem Salómon hafdi
gjørt fyrir Drottins hús; eirid á øllum þess-
um áhøldum vard ekki vegid. 17. 18 álna
hár var annar stólpinn, og ofan á honum hnúd-
ur af eiri, og hæd hnúdsins var 3 álnir, og
netverk og kjarnepli (granatepli) voru allt í

V. 17. *a.* Jer. 37, 1. *b.* 1 Kron. 3, 15. V. 18. 23, 31. Jer. 52, 1. V. 1. 2 Kron. 36, 17. Jer. 39, 1. 52, 4. V. 2. 24, 10. V. 3. Jer. 39, 2. V. 7. *c.* Jer. 39, 6. *d.* Jer. 52, 11. Ez. 12, 12. V. 17. 1 Kóng. 7, 14. 2 Kron. 3, 15. Jer. 52, 21.

kríngum hnúdinn, allt af eiri, og eins var á þeim ødrum stólpa hvad netverkid áhrærdi.

18. Og forínginn Lífvaktarinnar tók Seraja, høfudprestinn, og Sefania prest af annari rød, og þá þrjá dyraverdi, 19. og úr stadnum tók hann hirdmann, sem settur var yfir strídsmennina, og fimm menn af þeim sem stódu fyrir Kónginum, og sem fundust í stadnum, og skrifarann, hershøfdíngjann, sem valdi til hersins landsfólkid, og 60 menn, af landsfólkinu, sem fundust í stadnum, 20. þá tók Nebúsaradan forínginn lífvaktarinnar, og færdi þá Kónginum í Babel til Ribla. 21. Og Kóngurinn í Babel vann á þeim og drap þá í Ribla í héradinu Hemat. Þannig var Júda fólk burtu flutt.

22. Og yfir fólkid sem eptir vard í landinu Júda, sem Nebúkadnesar, Kóngur í Babel, lét eptir verda, yfir þad setti hann Gedalía, son Ahíkams, Safanssonar a). 23. Og sem allir herforíngarnir, þeir og þeirra menn, heyrdu, ad Kóngurinn í Babel hafdi sett Gedalía (yfir landid) komu þeir til Gedalía til Mispa, nefnil: Ismael sonur Netanía, og Jóhanan sonur Kareas, og Seraía sonur Tanhumets, Netofatítinn, og Jaasanía, sonur Maekatis, þeir og þeirra menn. 24. Og Gedalía sór þeim og þeirra mønnum og mælti: verid óhræddir vid þénara Kaldeumanna, verid kyrrir í landinu, og verid undirgéfnir Babels Kóngi, svo mun ydur vel vegna. 25. En á 7da mánudi kom Ismael sonur Netanía, sonar Elísama af þeirri konúnglegu ætt, og 10 menn med honum, og slóu í hel Gedalía, og þá Júda og Kaldeumenn sem hjá honum voru í Mispa. 26. Þá tók sig allt fólk til, smáir og stórir, og herforíngjarnir, og fóru til Egyptalands; því þeir voru hræddir vid Kaldeumenn. 27. En á því 37da ári eptir burtflutníng Jójakins Júda Kóngs, í 12ta mánudi, þann 27da dag mánadarins, tók Evil-Merodak, Kóngurinn í Babel, þad ár sem hann kom til ríkis, Jójakin Júda Kóng úr mirkvastofu; 28. og taladi gódsamlega vid hann, og setti hans stól fyrir ofan stóla þeirra Konúnga sem hjá honum voru í Babel. 29. Og lét hann fara úr sínum fánga búníngi; og hann át ávalt med honum svo leingi sem hann lifdi. 30. Og sitt uppheldi, þad støduga uppheldi, var honum géfid af Kónginum daglega, alla hans æfi.

---

# PARALIPOMENON.

## Fyrri Kroniku Bókin.

### 1. Kapituli.

Ættartølur frá Adam til Abrahams. Hans nidjar. Sbr. Gen. Kap. 5. 10. 11. 21. 25. 26.

1. Adam, Set, Enos, 2. Kenan, Mahalalel, Jared, 3. Henok, Methúsala, Lamek, 4. Nóa, Sem, Kam og Jafet. 5. Synir Jafets (eru) Gómer og Magog og Madai og Javan og Tubal og Mesek og Tiras. 6. Og synir Gómers: Askenas og Rífat og Tógarma. 7. Og synir Javans: Elísa og Tarsísa, Kitim

V. 22. *a.* Jer. 40, 5. V. 25. Jer. 41, 6. 7. V. 26. Jer. 41, 17. V. 27. Jer. 52, 31

og Dódanim. 8. Synir Kams: Kús og Misraim, Put og Kanaan; 9. Og synir Kús: (Meroe), 1 Msb. 10, 7. Seba og Havila og Sabta og Raema og Sabteka; og Raema synir: Sabea og Dedan. 10. Og Kús gat Nimrod; sá hinn sami tók til ad verda voldugur á jørdunni. 11. Og Misraim gat þá Lyda og Anama og Lehaba og Nafthua, 12. og Patrúsa og Kaslúa, (af hvørjum Filistear eru komnir) og Kaftóra. 13. Og Kanaan gat Sídon sinn frumgétníng og Het, 14. og Jebusi og Amori og Gergesi, 15. og Heví og Arki og Síni, 16. og Arvadi og Semari og Hemati. 17. Synir Sems: Elam og Assúr og Arfaksad og Lúd og Aram og Us og Hul og Geter og Mesek. 18. Og Arfaksad gat Sela, og Sela gat Eber. 19. Og Eber fæddust tveir synir; annar hét Peleg, því á hans døgum var jørdinni skipt; bródir hans hét Jóktan. 20. Og Jóktan gat Almódad og Selef og Hasarmavet og Jera, 21. og Hadóram og Usal og Dikla, 22. og Ebal og Abímael og Seba, 23. og Ofír og Hevila og Jóbab. Allir þessir eru synir Jóktans. 24. Sem, Arfaksad, Sela. 25. Eber, Peleg, Reu, 26. Serug, Nahor, Tara, 27. Abram, það er Abraham.

28. Synir Abrahams (voru): Isaak og Ismael. 29. Þetta er þeirra ætt: Ismaels frumgétni Nebajot og Kedar og Adbeel og Mibsam, 30. Misma og Duma, Massa, Hadad og Tema, 31. Jetur, Nafis og Kedma. Þessir eru synir Ismaels. 32. Og synir Kéturu, hjákonu Abrahams: hún fæddi Simran og Jóksan og Medan og Midían og Jesbak og Súa. Og synir Jóksans: Seba og Dedan. 33. Og synir Midians: Efa og Efer og Henok og Abida og Eldaa. Allir þessir eru Kéturu synir. 34. Og Abraham gat Isaak. Synir Isaaks: Esau og Israel.

35. Esaú synir: Elifas, Reguel og Jeus og Jaelam og Kóra. 36. Elifas synir: Teman og Omar, Sefi og Gaetam, Kenas og Timna og Amalek. 37. Synir Reguels: Nahat, Sera, Samma og Missa. 38. Og synir Seirs: Lótan og Sóbal og Síbeon og Ana og Díson og Eser og Disan. 39. Og synir Lótans: Hóri og Hóman og Lótans systir Timna. 40. Synir Sóbals: Alian og Manahat og Ebal, Sefi og Onam. Og synir Sibeons: Aja og Ana. 41. Synir Ana: Dison. Og synir Dísons: Hamran og Esban og Jetran og Keran. 42. Og synir Esers; Bilan og Savan og Jaekan. Synir Disans: Us og Aran. 43. Og þessir eru þeir Kóngar sem ríktu í Edomíta landi, ádurenn Kóngur drottnadi yfir Israelssonum: Bela sonur Beors, og nafn hans borgar var Dinhaba. 44. Og Bela dó, þá vard Kóngur í hans stad Jóbab, Serason frá Bósra. 45. Og Jóbab dó, þá vard Kóngur í hans stad Húsam, úr Temaníta landi. 46. Og Húsam dó, þá vard Kóngur í hans stad Hadad Bedadsson, sem vann Midianíta á Móabs vøllum. Og nafn hans borgar var Avit. 47. Og Hadad dó, þá vard Kóngur í hans stad Samla frá Masreka. 48. Og Samla dó, þá vard Kóngur í hans stad Sál, frá Rehobot vid ána. 49. Og Sál dó, þá vard Kóngur í hans stad Balhanan, sonur Akors. 50. Og Balhanan dó, þá vard Kóngur í hans stad Hadad, og borg hans hét Pai, og kona hans hét Mehetabeel, dóttir Matreds, dóttur Mesababs. 51. Og Hadad dó.

Og þessir voru høfdíngjar Edoms: høfdínginn af Timna, høfdínginn af Alia, høfdínginn af Jetet, 52. høfdínginn af Ahalibama, høfdínginn af Ela, høfdínginn af Pinon, 53. høfdínginn af Kenas, høfdínginn af Teman, høfdínginn af Mibsar, 54. høfdínginn af Magdíel, høfdínginn af Iram, þessir eru Edoms høfdíngjar.

## 2. Kapítuli.

Ættartal Jakobs og Júda ættkvíslar. Sbr. Gen. 30. 35. 38. 46. Ex. 31. Jós. 7. 15. Dóm. 1. 10. Rut. 4. 1 Sam. 16. 17. 2 Sam. 13. 17.

1. Þessir eru synir Ísraels: Rúben, Símeon, og Júda, Ísaskar og Sebúlon, 2. Dan, Jósep og Benjamín, Naftali, Gad og Asser. 3. Júda synir: Ger og Onan og Sela, þessir þrír voru honum fæddir af Súa dóttur, þeirri Kanversku. Og Ger, sá frumgétni var vondur fyrir Drottins augsýn, því deyddi hann hann. 4. Og Tamar, hans sonarkona, fæddi honum Peres og Sera. Allir Júda synir voru fimm. 5. Peres synir: Hesron og Hamul. 6. Og Sera synir: Simri og Etan og Heman og Kalkol og Dara, fimm alls. 7. Og Karmis synir: Akar, sem steipti Ísrael í ólukku, þared hann dró sér nokkuð af því bannfærða. 8. Og Etans synir: Asaría. 9. Og synir Hesrons, sem honum fæddust: Jerhameel og Ram og Kelúbai. 10. Og Ram gat Ammínadab, og Ammínadab gat Nahesson, höfuðsmann Júda sona. 11. Og Nahesson gat Salma, og Salma gat Bóas, 12. og Bóas gat Obed, og Obed gat Ísaí, 13. og Ísaí gat sinn frumgétning Eliab og Abínadab hinn annan og Símea þann þriðja, 14. Netaneel þann fjórða, Naddai þann fimta, 15. Osem þann sjötta, Davíð þann sjöunda. 16. Og þeirra systur voru: Serúja og Abígael. Og synir Serúja: Abísai og Jóab og Asael, þrír. 17. Og Abígael ól Amasa, og Amasa fadir var Jeter, Ísmaelítinn.

18. Og Kaleb, sonur Hesrons, átti (börn) með Asúba konu sinni og Jerígot; og þessir eru Asúbu synir: Jesúb og Sobab og Ardon. 19. Og þegar Asúba dó, tók Kaleb sér Efrat, og hún fæddi honum Húr; 20. og Húr gat Uri, og Ur gat Besaleel. 21. Og eptir það tók Hesron saman við dóttur Makirs, sem var fadir Gíleads, og tók hana þá hann var sextugur, og hún fæddi honum Segúb. 22. Og Segúb gat Jair, sem átti 23 stadi í landinu Gílead; 23. En Gesúrítar og Sýrlendskir tóku Jairs stadi, Kenat og (hennar dætur) tilheyrandi sextíu stadi. Allir þessir eru synir Makírs, födur Gíleads. 24. Og eptir að Kefron dó, í Kalebefrata, fæddi kona hans Abía honum Asúr, födur Tekóa.

25. Synir Jerameels, þess frumgétna Hebrons voru: sá frumgétni Ram og Búna og Oren og Osem (og) Ahia. 26. Og Jerameel átti adra konu, sem hét Atara, sú sama er módir Onams. 27. Og synir Rams, frumgétnings Jerameels, voru: Maas og Jamin og Eker. 28. Og synir Onams voru: Sammaí og Jada. Og synir Sammaí: Nadab og Abísur. 29. Og kona Abísurs hét Abíhail, og hún fæddi honum Aban og Mókid. 30. Og synir Nadabs: Seled og Appaim. Og Seled dó a) barnlaus. 31. Og synir Appaims: Jisei. Og synir Jisei: Sesan, og synir Sesans: Ahelai. 32. Og synir Jada, bródur Sammais: Jeter og Jónatan. Og Jeter dó barnlaus. 33. Synir Jónatans: Pelet og Sasa. Þetta voru nidjar Jerameels. 34. Og Sesan átti ekki syni, heldur dætur. Og Sesan hafdi Egyptskann þræl, sem hét Jara. 35. Og Sesan gaf dóttur sína Jara þræli sínum fyrir konu, og hún fæddi honum Atai. 36. Og Atai gat Natan, og Natan gat Sabad, 37. og Sabad gat Eflal, og Eflal gat Obed, 38. og Obed gat Jehu og Jehu gat Asaríu, 39. og Asaría gat Heles og Heles gat Elasa, 40. og Elasa gat Sisemai, og Sisemai gat Sallum, 41. og Sallum gat Jekamia, og Jekamia gat Elisama.

42. Og synir Kalebs bródúr Jerameels,

V. 30. Eiginlega sonar laus því dætur voru sjaldan taldar, sama má segja vid v. 32.

voru: Mesa hans frumgétníngur, sem er fadir Sifs, og Maresa synir, fødur Hebrons. 43. Og Hebrons synir: Kora og Tapua og Rekem og Sema. 44. Og Sema gat Raham fødur Jorkeams, og Rekem gat Sammai. 45. Og sonur Sammais var Maon, og Maon var fadir Betsúrs. 46. Og Efa, hjákona Kalebs, fæddi Haran og Mosa og Gases. Og Haran gat Gases. 47. Og synir Jadais voru: Regem og Jótam og Gesan og Pelet, og Efa og Saaf. 48. Hjákona Kalebs Maaka ól Seber og Tírhana, 49. og hún ól Saaf, fødur Madmanna, Sefa, fødur Makbena og fødur Gíbea. Og dóttur Kalebs var Aksa. 50. Pessir voru synir Kalebs: Benhúr, frumburdur Efrøtu, Sóbal, fadir þeirra í Kirjat Jearim, 51. Salma, fadir þeirra í Betlehem, Haref, fadir þeirra í Betgader. 52. Og synir Sobals fødur þeirra í Kirjat-Jearim, voru: Haroe, Hasí, Hammenuhot. 53. Og ættir þeirra í Kirjatjarim eru: Jetrítar og Futítar og Sumatitar og Misraítar; af þeim sømu eru komnir Sareatítar og Estaolítar. 54. Salma synir (eru): Betlehem, og Netofatítar, Atarot, Bet Jóab og helftin af Manahítum, Sareítar, 55. og ætt skrifarans sem bjó í Jabes, Tireatíta, Simeatíta og Súkotíta. Pad eru Kenítar, sem komnir eru af Hammat, fødur Rekabs ættar.

## 3. Kapítuli.

Nidjar Davíds. Sbr. 2 Sam. 3. 5. 12. 13. 1 Kóng. 11.

1. Pessir voru synir Davíds, sem honum fæddust í Hebron: sá frumgétni Amnon af Abínóam, Jesreelítinnuuni; sá annar Daníel af Abígael frá Karmel. 2. Sá þridji Absalon, sonur Maaka, dóttir Talmais Kóngs í Gesúr; sá fjórdi Adonía sonur Hagits; 3. sá fimti Safatía af Abítal, sá sjøtti Jitream, af Eglu konu hans. 4. Sex fæddust honum í Hebron; og hann ríkti þar 7 ár og 6 mánudi, og 33 ár ríkti hann í Jerúsalem. 5. Og þessir fæddust honum í Jerúsalem: Símea og Sóbab og Natan og Salómon, fjórir af Batsua (Batseba) dóttur Ammíels, 6. Jibehar og Elísama og Elifelet, 7. og Noga og Nefeg og Jafia, 8. og Elísama og Eljada og Elífelet, níu; 9. allir synir Davíds, auk sona hjákonanna. Og Tamar var þeirra systir. 10. Og Salómons son var Róbóam, hans son Abja, hans son Assa, hans son Jósafat, 11. hans son Jóram, hans son Ahasía, hans son Jóas, 12. hans son Amasía, hans son Asaría, hans son Jótam, 13. hans son Akas, hans son Esekia (Hiskia), hans son Manasse, 14. hans son Amon, hans son Jósía, 15. Jósía synir voru: sá frumgétni Jóhanan, sá annar Jójakím, sá þridji Sedekja, sá fjórdi Sallum. 16. Og synir Jójakims: hans son Jekonía, hans son Sedekía. 17. Og synir Jekonias, þess hertekna: hans son Sealtíel, 18. og Malkíram og Fedaja og Senasar, Jekamia, Hósama og Nedabia; 19. og synir Fedaja: Serúbabel og Símei. Og sonur Serúbabels: Mesulam og Hanania og Selomit þeirra systir, 20. og Hasúba og Ohel og Berekja og Hasadia, Jusabhesed, fim. 21. Og Hananíu synir: Platia og Jesaja, synir Refaias, synir Arnans, synir Obadías, synir Sekanjas. 22. Og synir Sekanias: Semaja. Og synir Semajas: Hatus og Jigal og Barja og Nearja og Safat, sex. 23. Og synir Nearjas: Elioenai og Hiskia og Asríkam, þrír. 24. Og synir Elioenai: Hodaia og Eliasib og Plaja og Akub og Johanam og Delaja og Anani, þeir sjø.

## 4. Kapítuli.

Fleiri nidjar Júda, sbr. Gen. 38. 46. Jós. 15. Dóm. 1. 15.

1. Júda synir: Peres, Hesron og Karmí

og Húr ag Sobal. 2. Og Reaja, sonur Sóbals gat Jahat, og Jahat gat Ahamaí og Lahad. Petta eru ættir Sereagíta. 3. Og þessir eru af fødurnum af Etam: Jesreel og Jisma og Jidbas, og systir þeirra hét Haslelponi. 4. Og Pnúel var fadir Gedors, og Eser var fadir Húsa. Petta eru synir Húrs, frumburdar Efrata, fødur Betlehem. 5. Og Ashúr, fadirinn af Tekóa, átti tvær konur, Heleu og Naara. 6. Og Naara fæddi honum Ahúsam og Hefer og Timní og Ahastari. Petta eru synir Naøru. 7. Og synir Heleu: Seret og Sóhar og Etnan. 8. Og Kos gat Anúb og Hasóbeba og ættir Aharhels, sonar Harums. 9. Og Jabes var fremri brædrum sínum, og módir hans kalladi hann Jabes; því hún sagdi: eg fædi hann med harmkvælum. 10. Og Jabes ákalladi Israels Gud og mælti: Ef þú blessar mig og vídkar mitt land og verdi þín hønd med mér, og látir þú einga ólukku hitta mig, svo eg hafi eingin harmkvæli — og Gud lét koma þad sem hann bad um. 11. Og Kelab, bródir Súa, gat Mehír, hann er fadir Estons. 12. Og Eston gat Rafa ætt og Pasea og Tehinna, fødur stadarins Nahas. Petta eru Reka menn. 13. Og synir Kenas: Otniel og Seraja. Og synir Otníels: Hatat. 14. Og Meonotai gat Ofra, og Seraja gat Jóab, fødur þeirra í trésmida dalnum a), því þeir voru trésmidir. 15. Og synir Kalebs Jefunnes sonar: Iru, Ela og Naam. Og synir Ela: Kenas. 16. Og synir Jehaleels: Sif og Sífa og Tiría og Asareel. 17. Og synir Esras: Jeter og Mered, og Efer og Jalon — og hún fæddi Miriam og Samaí og Jisba, fødur Estihemos. 18. Og hans kona, Júdjia, fæddi Jered, fødur Gedors, og Heber, fødur Sokos, og Jekútiel, fødur Sanoa. Og þessir eru synir Bitjas dóttur Faraós, sem Mered tók. 19. Og synir konu Hodyas, systur Nahams, fødursins af Kegila, eru Garmi og Estihemóa af Maekat. 20. Og Simons synir eru: Amnon og Rinna, Benhanan og Tilon. Og synir Jisei: Sohet og Bensohet. 21. Synir Sela, Júdasonar eru: Er, fadir Leka, og Laada fadir Maresa, og ættir línvefara hússins, af húsinu Arbea, 22. og Jókim, og menn frá Kóseba, og Jóas og Saraf, sem drottnudu yfir Móab, og Jasúbi-Lekem. Allt þetta er gamalt. 23. Par voru leirkérasmidir og bjuggu í umgirdtum nýlendum; hjá sínum Kóngi bjuggu þeir vid sínar sýslanir.

## 5. Kapituli.

Ættartala Símeons.

24. Synir Símeons: Nemúel og Jamin, Jarib, Sera, Sál, 25. hans son Sallum, hans son Mibsam, hans son Misma. 26. Og synir Mismas: hans son Hamúel, hans son Sakúr, hans son Simei. 27. Og Simeí átti 16 syni og sex dætur, og brædur hans áttu ekki marga syni, og allar þeirra ættir fjølgudu ekki einsmikid og Júda synir. 28. Og þeir bjuggu í Berseba og Molada og Hasar-Sual, 29. Og í Bila og í Esem og í Tolad, 30. og í Betuel og í Horma og í Siklag, 31. og í Bet-Markabot og í Hasar-Súsím, og Bet-Birei og í Saaraim. Pad voru þeirra stadir þángad til Davíd kom til ríkis. 32. Og þeirra þorp: Etam og Ain, Rimmon og Token og Asan, fim stadir; 33. Og øll þeirra þorp, í kríngum þessa stadi nádu allt til Baal. Petta eru þeirra bústadir og þeirra ætta registur. 34. Og Mesobab og Jamelek og Jósa, sonur Amasía, 35. og Jóel og Jehú, sonur Jósibías, sonar Seraja, sonar Asíels, 36. og Eljoenai og Jaakoba, og Jesohaja, og Asaía og Adiel og Jesímiel og Benaja, 37. og Sísa, sonur Sifeis, sonar Alons, sonar Jedaias, sonar Simri; 38. þess-

V. 14. a. Neh. 11, 35. V. 24. Gen. 46, 10.

ir, sem med nafni eru nefndir, vóru høfdíngjar í þeirra ættum og þeirra kynþættir ærludust mjøg. 39. Og þeir fóru vestur frá Gedor allt ad dalnum austantil, til ad leita haglendis fyrir sína saudi. 40. Og þeir fundu feitt og gott haglendi, land vídt um sig til allra hlida og rólegt og fridsamlegt; því þeir sem bjuggu þar í fornøld voru af Ham (komnir). 41. Og svo komu þeir sem nú voru nefndir á døgum Esekía Júda Kóngs, og unnu Meaníta og þeirra tjøld sem þeir hittu þar, og afmádu þá allt til þessa dags, og bjuggu þar í þeirra stad; því þar var haglendi fyrir saudi.

42. Og af þeim, af sonum Simeons, fóru 5 hundrud til Seirs fjalla, og til Platía og Nearía og Nefaía og Usíel, og synir Jísei voru fremstir í flokki, 43. og unnu leifar þeirra sem flúid høfdu af Amalek, og búa þar sídan allt til þessa dags.

## 6. Kapítuli.

Ættartal Rúbens, Gads og Manassis. Saga um þeirra stríd.

1. Og Rúbens synir Ísraels frumgétna (því hann var frumborinn, en søkum þess hann hafdi flekkad sæng fødur síns, var hans frumgétníng géfin sonum Jóseps, sonar Ísraels, þó án þess, ad þeir væru í ættartølunum taldir svo sem frumgétnir. 2. ad sønnu var Júda voldugur medal sinna brædra, og høfdíngi vard einn af hans ætt, en frumgétníngin tilheyrdi Jósep). 3. Synir Rúbens þess frumgétna Ísraels eru: Hanok og Pallu og Hesron og Karmi. 4. Synir Jóels: hans son Semaja, hans son Gog, hans son Símei, 5. hans son Mika, hans son Reaja, hans son Baal, 6. hans son Bera, sem Tiglat = Pilneser, Assýríu Kóngur flutti burt hertekinn; hann var Rúbeníta høfdíngi. 7. Og hans brædur eptir þeirra ættum, í uppskrift þeirra ættartølu, (voru): høfdíngjinn Jeíel og Sakaría, 8. og Bela, sonur Asas, sonar Sema, sonar Jóels; hann hinn sami bjó í Aróer, allt til Nebo og Baal=Meon, 9. og austureptir bjó hann ad eydimørkinni ávid allt ad Efrat; því hjardir þeirra voru miklar í landinu Gilead. 10. Og á døgum Sáls áttu þeir stríd vid Hagaríta, og þeir féllu fyrir þeirra hønd, og þeir bjuggu í sínum tjøldum med allri austurhlidinni á Gilead.

11. Og Gadssynir bjuggu gagnvart þeim í landinu Basan, allt til Salka: 12. Jóel, høfdínginn, og Safan, sá annar, og Jaenaí og Safat í Basan. 13. Og þeirra brædur eptir þeirra ættlidum eru: Mikael og Mesulam og Seba og Jórai og Jaekan og Sía og Eber, sjø. 14. Þessir eru synir Abíhails, sonar Huri, sonar Jaroas, sonar Gíleads, sonar Mikaels, sonar Jessísai, sonar Jadós, sonar Bús. 15. Ahí, sonur Abdiels, sonar Gúní var þeirra ættfadir. 16. Og þeir bjuggu í Gílead og Basan og í þeirra dætrum og í øllum Sarons beitiløndum svo lángt sem þau ná. 17. Þeir voru allir eptir sínum ættum uppskrifadir á døgum Jótams Júda Kóngs og á døgum Jeróbóams Ísraels Kóngs.

18. Rúbens synir og Gatítar og hálf Manassis ættkvísl, þeir sem voru røskir menn, báru skjøld og sverd og spentu boga, og kunnu til strídstilstríds, reiknudust 44 þúsund 700 hundrud og 60, þeir sem herfærir voru, 19. þeir áttu stríd vid Hagaríta og vid Jetúr og Nafis og Nodab. 20. Og þeim var hjálpad á móti þeim og Hagarítar voru géfnir í þeirra hønd, og allir sem med þeim voru, því þeir kølludu til Guds í bardaganum og hann heyrdi þá, því þeir treystu honum. 21. Og þeir fluttu burt þeirra fé, 50 þúsund úlfalda, 250 þúsund saudi og 2 þúsund asna og hundrad þúsund manna sálir, 22. því margir féllu, af því strídid var af Gudi. Og þeir bjuggu (þar) í þeirra stad allt

til herleidíngarinnar. 23. Og synir hálfrar Manasses ættar bjuggu í landinu frá Basan allt til Baal-Hermon og Senir og fjallsins Hermon; þeir voru margir ad tölu. 24. Og þessir voru þeirra ættfedur: Efer og Jisei og Eliel og Asriel og Jeremia og Hódavia og Jadiel, strídskappar, nafnfrægir menn, höfdíngjar sinna ætta. 25. En þeir féllu frá Gudi sinna fedra, og tóku framhjá med gudum landsins þjóda, sem Gud hafdi afmád frá þeim. 26. Þá vakti Gud anda Fúls Assýríu Kóngs, og anda Tiglat-Pilnesers, Assýríu Kóngs, og flutti burt Rúbenítana og Gadítana og hálfa Manassis ættkvísl, og færdi þá til Hala og Habor og Hara og til árinnar (í) Gosan allt til þessa dags.

## 7. Kapítuli.

Ættartala og stadir Leví ættkvíslar.

1. Leví synir (voru) Gerson, Kahat og Merari. 2. Og synir Kahats: Amram, Jesehar og Hebron og Usíel. 3. Og synir Amrams: Aron og Móses og Miriam. Og synir Arons: Nadab og Abíhu, Eleasar og Itamar. 4. Eleasar gat Pineas, Pineas gat Abisúa, 5. og Abísúa gat Búki, og Búki gat Usí, 6. og Usi gat Seraja, og Seraja gat Merajot, 7. Merajot gat Amaria, og Amaria gat Ahitub, 8. og Ahitub gat Sadok, og Sadok gat Ahimaas, 9. og Ahimaas gat Asaría, og Asaria gat Jóhanan, 10. og Jóhanan gat Asaria (þad er sá sem var prestur í húsínu, er Salómon bygdi í Jerúsalem). 11. Og Asaria gat Amaria, og Amaria gat Ahitub, 12. og Ahitub gat Sadok og Sadok gat Sallum, 13. og Sallum gat Hilkia og Hilkia gat Asaria, 14. og Asaria gat Seraja og Seraja gat Jósadak, 15. og Jósadak fór burt, þegar Drottinn flutti burt Júda og Jerúsalem fyrir Nebúkadnesars hönd.

16. Synir Leví eru: Gerson, Kahat og Merari; 17. og þetta eru nöfn Gersons sona: Libni og Simei. 18. Og synir Kahats: Amram og Jesehar og Hebron og Usíel. 19. Synir Merari: Maheli og Musi. Og þetta eru ættir Levítanna eptir þeirra fedrum: 20. af Gersom, hans sonur Libni, hans sonur Jahat, hans sonur Simma, 21. hans sonur Jóa, hans sonur Iddo, hans sonur Sera, hans sonur Jeatrai, 22. hans sonur Kahat, hans sonur Ammínadab, hans sonur Kóra, hans sonur Assír, 23. hans sonur Elkana, hans sonur Ebiasaf, hans sonur Assír, 24. hans sonur Tahat, hans sonur Uriel, hans sonur Usia, hans sonur Sál; 25. og Elkana synir: Amasai og Ahimót, 26. hans son Elkana, hans son Elkana-Sofai, hans son Nahat, 27. hans son Eliab, hans son Jóram, hans son Elkana. 28. Og synir Samúels, sá frumborni Vasni og Abía. 29. Synir Meraris: Maheli, hans son Libni, hans son Simei, hans son Usa, 30. hans son Símea, hans son Hagia, hans son Asaia.

31. Og þessir eru þeir sem Davíd setti til ad syngja í Drottins húsi, eptir ad örkin var komin á sinn stad. 32. Og þeir þjónudu med saung fyrir samkundutjaldbúdinni, þángad til Salómon byggdi Drottins hús í Jerúsalem, og stódu eptir sinni röd í sinni þjónustu. 33. Og þessir eru sem þar stódu og þeirra synir: af sonum Kahats: Heman saungvari, sonur Jóels, sonar Samúels, 34. sonar Elkana, sonar Jeróhams, sonar Elíels, sonar Tóas, 35. sonar Súfs, sonar Elkana, sonar Mahats, sonar Amasaí, 36. sonar Elkana, sonar Jóels, sonar Asaría, sonar Sefanía, 37. sonar Tahats, sonar Assers, sonar Ebiassafs, sonar Kóra, 38. sonar Jesahars, sonar Kahats, sonar Leví, sonar Israels. 39. Og hans bródir Asaf er stód

V. 26. 2 Kóng. 15, 29. 17, 6. V. 1. Ex. 6, 16. V. 16. Gen. 46, 11.

honum til hægri handar, Asaf sonur Berekía, sonar Símea, 40. sonar Mikaels, 41. sonar Etni, sonar Sera, sonar Adaía, 42. sonar Etans, sonar Síma, sonar Símeí, 43. sonar Jahats, sonar Gersoms, sonar Leví.

44. Og synir Merarí, þeirra brædur stódu til vinstri: Etan, sonur Kísí, sonar Abdi, sonar Malúks, 45. sonar Hasabía, sonar Amasía, sonar Hilkía, 46. sonar Amsí, sonar Bani, sonar Samers, 47. sonar Makeli, sonar Musí, sonar Merari, sonar Leví.

48. Og þeirra brædur, Levítarnir, voru géfnir algjørlega til allrar þjónustu tjaldbúdar Drottins húss. 49. Og Aron og hans synir færdu fórnir á brennifórna altarinu, og á reykaltarinu, voru til allrar þjónustu í því háheilaga, og forlíkudu Israel, øldúngis eins og Móses Drottins þénari hafdi bodid. 50. Og þessir eru synir Arons: hans son Eleasar, hans son Pineas, hans Abisúa, 51. hans son Búki, hans son Usí, hans son Seraia, 52. hans son Meraiot, hans son Amaría, hans son Ahitúb, 53. hans son Sadok, hans son Ahímaas. 54. Og þetta eru þeirra bústadir og bæir innan þeirra landamerkja, Arons sona af ættlid Kahats, því hluturinn féll þeim til. 55. Og þeir gáfu þeim Hebron í Júdea og land þar í kríng. 56. En akra stadarins og þeirra þorp gáfu þeir Kaleb syni Jefúnnes. 57. Og sonum Arons gáfu menn gridastadina Hebron og Libna og þeirra forstadi, og Jatir og Estemóa og þeirra forstadi, 58. og Hilen og hennar forstadi, og Debír og hennar forstadi, 59. og Asan og hennar forstadi, og Betsemes og hennar forstadi. 60. Og af Benjamíns ættkvísl: Geba og hennar forstadi, og Allemet og hennar forstadi, og Anatot og hennar forstadi; allir þeirra stadir 13 eptir þeirra ættum.

61. Og hinum ødrum Kahats sonum (gáfu menn) frá ættum ættkvíslanna, (Efraims og Dans og) frá þeirri hálfu Manassis ættkvísl eptir hlutfalli, 10 stadi. 62. Og sonum Gersoms eptir þeirra ættum frá ættkvísl Isaskars, og frá ættkvísl Asers og frá ættkvísl Naftali og frá ættkvísl Manassis í Basan, 13 stadi. 63. Sonum Merari eptir þeirra ættum frá Rúbens ættkvísl og frá Gads ættkvísl, og frá Sebúlons ættkvísl med hlutfalli 12 stadi. 64. Og svo gáfu Israels synir Levítunum stadina og þeirra forstadi. 65. Og þeir gáfu med hlutfalli frá ættkvísl Júda sona og frá ættkvísl Símeons sona og frá ættkvísl Benjamíns sona þessa stadi sem þeir nefna nøfnum. 66. Og (hinir adrir) af Kahats sona ættum feingu sína stadi frá Efraims ættkvísl. 67. Og menn gáfu þeim gridastadi: Sikems borg og hennar forstadi, á Efraims fjalli, og Geser og hennar forstadi, 68. og Jókmeam og hennar forstadi og Bethoron og hennar forstadi, 69. og Ajalon og hennar forstadi, og Gat-Rimmon og hennar forstadi, 70. og frá hálfri Manassis ættkvísl Aner og hennar forstadi, og Bíleam og hennar forstadi — ættum hinna annara Kahats sona. 71. Sonum Gersoms: frá ættum þeirrar hálfu Manassis ættkvíslar: Gólan í Basan, og hennar forstadi, og Astarot og hennar forstadi; 72. og frá Isaskars ættkvísl: Kades og hennar forstadi, og Dóbrat og hennar forstadi, 73. og Ramot og hennar forstadi, og Anem og hennar forstadi; 74. og frá Asers ættkvísl: Masal og hennar forstadi og Abdon og hennar forstadi, 75. og Húkok og hennar forstadi, og Rehob og hennar forstadi; 76. og frá Naftalí ættkvísl: Kedes í Galileu og hennar forstadi, og Hammon og hennar forstadi, og Kirjathaim og hennar forstadi.

77. Þeim ødrum sonum Merarí (gáfu þeir) frá Sebúlons ættkvísl: Rimmon og hennar

V. 67. fl. Sbr. Jós. 21, 21. fl.

forſtadi, og Tabor og hennar forſtadi; 78.
og hinumegin Jórdanar gégnt Jeríkó, fyrir
auſtan Jórdan, frá Rúbens ættkvíſl: Beſer í
eydimørkinni og hennar forſtadi, og Jaſa og
hennar forſtadi, 79. og Kedemot og hennar
forſtadi, og Mepaat og hennar forſtadi; 80.
og frá Gads ættkvíſl: Ramot í Gílead og
hennar forſtadi, og Mahanaim og hennar for-
ſtadi, 81. og Heſbon og hennar forſtadi, og
Jaeſer og hennar forſtadi.

## 8. Kapítuli.

*Nidjar Jsaſkars, Benjamíns, Naftalí, Manaſsis, Efraims og Aſers.*

1. Synir Jsaſkars voru: Tola og Pua,
Jaſub og Simron, fjórir. 2. Og ſynir Tóla:
Uſí og Refaia og Jeriel og Jahemai og Jib-
ſam og Samúel, høfdíngjar ſinna ætta af Tola,
røſkir menn, í ſínum ættum; þeirra tal á Da-
víds døgum var: 22 þúſund og 6 hundrud. 3.
Og Uſí ſynir: Jeſraja, og Jeſraja ſynir: Mikael
og Obadia og Joel, Jſsía, fimm, þeir (voru) allir
høfudsmenn. 4. Og hjá þeim voru eptir þeirra
ættum, eptir þeirra fedra húſum, herſkarar til
ſtríds, 36 þúſund, því þeir høfdu margar kvinnur
og børn. 5. Og þeirra brædur, af allri Jsaſkars
ættkvíſl, røſkir menn, voru 87 þúſundir, allir taldir.
6. (Synir) Benjamíns eru: Bela og Beker
og Jedjael, þrír; 7. og Bela ſynir: Eſbon
og Uſí og Uſíel og Jerimot og Jeri, fimm,
høfudsmenn ſinna ætta, røſkir menn, og þeirra
ættartala 22 þúſund og 34 8. Og ſynir Bek-
ers: Semira og Jóas og Elíeſer og Elíoenai
og Omri og Jeremot og Abia og Anatot og
Alamet; allir þeſsir voru ſynir Bekers, 9. og
þeirra regiſtur, eptir þeirra ættum, høfudsmenn
ættlidanna, røſkir menn, 20 þúſund og 2 hundr-
ud. 10. Og ſynir Jedjaels: Bílhan. Og
ſynir Bílhans: Jeus og Benjamín og Ehud
og Knaana og Setan og Tarſís og Ahiſahar.
11. Allir þeſsir voru ſynir Jedjaels eptir ſín-
um ættfedrum, røſkir menn, 17 þúſund og 2
hundrud, ſem útfóru med hernum í ſtríd. 12.
Og Súpim og Húpim, ſynir Jrs, Húſím ſynir
Ahers. 13. Synir Naftalí: Jaſiel og Gúm
og Jeſer og Sallum, ſynir Bilhas.
14. Synir Manaſsis: Eſríel, hvørn ed
fæddi — hans Sýrlendſka fridla fæddi Makir,
fødur Gíleads. 15. Og Makír tók konu af
Húpim og Súpim, og ſyſtir hans hét Maaka,
og nafn hins annars (ſonar) var Selafehad,
og Selafehad átti dætur. 16. Og Maaka
kona Makírs, fæddi ſon, og nefndi hann Per-
es, og bródir hans hét Seres, og hans ſynir
Ulam og Bekem. 17. Og ſynir Ulams: Bed-
an. Þad eru ſynir Gíleads, ſonar Makírs, ſonar
Manaſsis. 18. Og hans ſyſtir Hameleket fæddi
Jshod og Abíeſer og Mahela. 19. Og Semida
ſynir voru: Aheam og Sikem og Likhi og Anjam.
20. Synir Efraims eru: Suthela og hans
ſon Bered, og hans ſon Tahat, og hans ſon
Elada og hans ſon Tahat, 21. og hans ſon
Sabad, og hans ſon Súthela og Eſer og Ele-
ad. Og mennirnir frá Gat myrdtu þá, þeir
innfæddu í landinu, því þeir voru farnir til ad
taka þeirra hjardir, 22. og Efraim þeirra fad-
ir ſyrgdi þad leingi, og brædur hans komu ad
hugga hann. 23. Og hann kénndi ſinnar
konu, og hún vard ólétt og fæddi ſon, og
hann nefndi hann Bría, því ólán hafdi hitt
hans hús. 24. Og hans dóttir var Seera,
og hún byggdi Bethóron, þad nedra og efra,
og Uſín-Seera. 25. Og Refa var hans
(Bríu) ſon, og hans ſon Reſef og Tela og
hans ſon Tahan, 26. hans ſon Laedan, hans
ſon Ammíhud, hans ſon Eliſama, 27. hans

B. 1. Gen. 46, 13. B. 6. Gen. 46, 21. 1 Kron. 8, 1. B. 13. Gen. 46, 24. B. 14. Núm. 26, 29. 31. B. 20. Núm. 26, 35.

son Nún, hans son Jósúa, 28. og þeirra eign
og þeirra bústadur var Betel og hennar dæt-
ur og Naaran fyrir austan, og Geser fyrir
vestan og hennar dætur, og Sikem og hennar
dætur, allt til Gasa og hennar dætra, 29. og
á hlid vid Manassis syni Betsean og hennar
dætur, Taenak og hennar dætur, Megiddo og
hennar dætur, Dor og hennar dætur. Þar
bjuggu synir Jóseps, sonar Israels.

30. Synir Asers eru: Jimna og Jisva og
Jisvi og Bria og Sera, þeirra systir. 31.
Og Bría synir: Heber og Malkiel, hann er
fadir Birsavits. 32. Og Heber gat Jaflet
og Somer, og Hótam og Sua, þeirra systir.
33. Og synir Jaflets: Pasak og Bímehal og
Asvat. Þad eru Jaflets synir. 34. Og
synir Semers: Ahí og Raga og Huba og
Aram. 35. Og synir Helems (Hótams) hans
bródurs: Sófa og Jimna og Seles og Amal.
36. Synir Sófa: Sua og Harnefer og Sual
og Beri og Jimra, 37. og Beser og Hod og
Sama og Silsa og Jetran og Beera. 38.
Og synir Jeters: Jefunne og Fispa og Ara.
39. Og synir Ulla: Ara og Haniel og Risia.
40. Allir þessir voru synir Asers, høfudsmenn
ættanna, útvaldir, røskir menn, høfdíngjar furst-
anna. Og þeir voru taldir til hersins, til
strids, þeirra tala, var 26 þúsund manns.

## 9. Kapítuli.

*Ætt Benjamíns og Sáls.*

1. Og Benjamín gat Bela, sinn frum-
gétníng, Asbel, annann, og Ara, þann þridja,
2. Nóa, þann fjórda og Rafa þann fimta. 3.
Og Bela átti syni: Addar og Gera og Abí-
hud, 4. og Abísúa og Naaman og Ahóa, 5.
og Gera og Sefufan og Haram. 6. Og þess-
ir eru synir Ehúds. Þessir voru ættfedur inn-
byggjaranna í Geba, og þeir færdu þá burt til
Manahat. 7. Nefnilega Naaman og Ahóa
og Gera, hinn sami flutti þá burt og gat Usa
og Ahihud. 8. Og Saharaim afladi sona í
landinu Móab, eptir ad hann hafdi látid þá
frá sér, med konum sínum, Húsím og Baera;
9. og med konu sinni Hodes átti hann, Jób-
ab og Siba og Mesa og Malkam, 10. og
Jeus og Sokia og Hirma. Þetta eru hans
synir, ættfedur. 11. Og med Húsím átti hann,
Abitub og Elpaal. 12. Og synir Elpaals:
Eber og Miseam og Semer; sá hinn sami
byggdi (stadina) Ono og Lod og þeirra dætur.
13. Og Bría og Sema eru ættfedur innbygg-
jaranna í Ajalon, þeir ráku burt innbyggjar-
ana í Gat. 14. Og Ahio, Sasak og Jere-
mot, 15. og Sebadia og Arad og Eder, 16.
og Mikael og Jispa og Jóa, eru Bría synir.
17. Og Sebadia og Mesullam og Hiski og
Heber, 18. og Jismerai og Jislia og Jóbab,
eru synir Elpaals, 19. og Jakim og Sikri
og Sabdi, 20. og Elienai og Siltai og Eliet,
21. og Adaja og Beraia og Simrat eru synir
Símei. 22. Ispan og Eber og Elíel, 23. og
Abdon og Sikri og Hanan, 24. og Hanania og
Elam og Antotia, 25. og Jifdeia og Pnuel,
eru synir Sasaks. 26. Og Samserai og Se-
haria og Atalia, 27. og Jaeresia og Elia og
Sikri eru synir Jeróhams. 28. Þessir eru
ættfedur í þeirra kynþáttum, høfdíngjar; þessir
bjuggu í Jerúsalem. 29. Og í Gíbeon bjó
fadir Gíbeons, og kona hans hét Maaka. 30.
Hans frumgétni son var Abdon, og (hinir
adrir) Súr, Kis og Baal og Nadab, 31.
og Gedor og Ahío og Seker. 32. Og Mik-
lot gat Simea og þeir bjuggu gégnt brædr-
um sínum í Jerúsalem, hjá sínum brædrum.

33. Og Ner gat Kis, og Kis gat Sál, og Sál

V. 30. Gen. 46, 17. V. 23. Því ólán hafdi etc: adrir: því í raunum hafdi hún verid í hans húsi. V. 1. Gen. 46, 21. Núm. 26, 38. fl.

gat Jónatan og Malki-Súa og Abinadab og
Esbaal. 34. Og sonur Jónatans var Merib-
baal, og Merib-baal gat Míka. 35. Og
Míka synir eru: Píton og Melek og Taera og
Ahas. 36. Og Ahas gat Jóadda, og Jóadda
gat Alemet og Almaret og Simri, og Simri
gat Mosa, 37. og Mosa gat Binea, og hans
son var Rafa, hans son Eleasa, hans son As-
el. 38. Og Asel átti 6 syni, og þetta eru
þeirra nøfn: Asríkam, Bokru og Jismael
og Searia og Obadía og Hanan. Allir þess-
ir eru synir Asels. 39. Og synir bródur hans
Eseks: Ulam, hans frumgétníngur, Jeus, ann-
ar, og Elífelet sá þridji. 40. Og synir Ul-
ams voru røskir menn, bogmenn, og áttu marga
syni og sona syni, hundrad og fimtýgi. All-
ir þessir eru af sonum Benjamíns.

## 10. Kapítuli.

Ymsar ættir, helst í Jerúsalem og Gíbeon.

1. En Israel allur er eptir sínum ættlidum
uppskrifadur, og sjá! þeir eru skrifadir í bók
Israels Kónga. Og Júda var fluttur burt til
Babel sakir sinna misgjørda. 2. Og þeir fyrri
innbyggjarar í þeirra eign og þeirra stødum
voru Israelítar, prestarnir, Levítarnir, og helgi-
dómsins þjónar. 3. Og í Jerúsalem bjuggu
(nokkrir) af sonum Júda og sonum Benjamíns,
og sonum Efraims og Manassis.

4. Uthai, sonur Ammíhuds, sonar Omri,
sonar Imri, sonar Bani, sonar Peres, sonar
Júda. 5. Og af Sílonítum: Asaja, sá frum-
gétni, og hans synir. 6. Og af sonum Sera:
Jeguel og hans brædur, 6 hundrud og níutíu.

7. Og af sonum Benjamíns: Sallu, sonur
Mesullams, sonar Hodavia, sonar Hasúna; 8.
og Jibneja, sonur Jeróhams, og Ela, sonur Usí,
sonar Mikri, og Mesullam, sonur Sefatia, son-
ar Reguels, sonar Jibneja; 9. Og þeirra
brædur, eptir þeirra ættlidum, 9 hundrud og 6
og 50. Allir þessir menn voru ættfedur sinna
ættlida.

10. Og af prestunum: Jedaja og Jojarib
og Jakin, 11. og Asaría, sonur Hilkia, sonar
Mesullams, sonar Sadoks, sonar Merajots,
sonar Ahitubs, forstødumadur Guds húss. 12.
Og Adaja, sonur Jerohams, sonar Pashúrs,
sonar Malkia; og Maisai, sonur Adiels, sonar
Jasera, sonar Mesullams, sonar Mesillem-
its, sonar Immers; 13. Og þeirra brædur,
høfdíngjar sinna ætta, (voru) þúsund, 7 hundr-
ud og 60, duglegir menn í størfum þjónust-
unnar í Guds húsi.

14. Og af Levítunum: Semaja, sonur
Hasubs, sonar Asríkams, sonar Hasabia, af
sonum Merari; 15. og Bakbakar, Heres og
Galal og Mathania, sonur Míka, sonar Sikri,
sonar Asafs; 16. og Obadia sonur Semaja,
sonar Galals, sonar Jedutuns; og Berekja,
sonur Asa, sonar Elkana, sem þá bjó í þorp-
um Netofatíta. 17. Og dyraverdirnir: Sall-
um og Akub og Talmon og Ahiman og þeirra
brædur; Sallum var fyrir þeim. 18. Og til
þessa tíma eru þeir í Kóngsins porti mót austri,
þeir, dyraverdir Leví sona herbúda; 19. og Sall-
um, sonur Kóre, sonar Ebiasafs, sonar Kóra, og
hans brædur, af húsi fødurs hans, Korítarnir,
þeir voru yfir størfum þjónustunnar, vøktudu dyr
tjaldsins, og þeirra fedur voru, í Drottins
herbúdum, verdir inngángsins. 20. Og Pín-
as, sonur Eleasars, var fordum høfdíngi yfir
þeim (Drottinn var med honum). 21. Sek-
aria, sonur Meselemia, var dyravørdur sam-
kundu tjaldsins. 22. Þeir allir, útvaldir fyrir
dyraverdi vid þrepskjøldinn, voru 212. Þeir
voru uppskrifadir eptir þeirra þorpum; Davíd

V. 2. Helgidómsins þjónar: eiginlega ánaudugir menn t. d. Gíbeonitarnir, sem størfudu ad því erfidasta og ótignglegasta vid þjónustugjørdina. Jósúab. 9, 25—27. Esr. 8, 20. fl.

og Samúel, Sjáandinn, høfdu sett þá sakir þeirra trúmennsku. 23. Þeir og þeirra synir voru vid dyrnar á Drottins húsi, á tjald-búdar húsinu til vardhalds. 24. Eptir þeim fjórum áttum stódu dyraverdirnir, austan til, vestan til, nordan og sunnan til. 25. Og þeirra brædur voru í þeirra þorpum, til ad koma hinn sjøunda dag, hvad eptir annad, med þeim. 26. Í embættis trúmennsku stódu þeir, fjórir yfirmenn dyraverdanna, sjálfir Levítar, og þeir voru yfir stúkunum, og yfir fjársjódum Guds húss. 27. Og alla nóttina voru þeir í kríngum Guds hús, því þeirra skylda var, ad vaka, og þeim var ætlad ad ljúka upp (musterinu) á hvørjum morgni. 28. Og nokkrir af þeim vóru umsjónarmenn þjónustugjørdarinnar áhalda; því med tølu báru þeir þau inn, og med tølu báru þeir þau út. 29. Og sumir af þeim voru settir yfir verkfærin, yfir øll heiløg verkfæri, og yfir hveitimélid og vínid og vidsmjørid og reykelsid og ilmjurtirnar. 30. Og adrir af sonum prestanna tilreiddu smurníngar vidsmjørid og ilmjurtirnar. 31. Og Matitía, einum af Levítunum, sem var frumgétníngur Sallums, Kahatítans, var trúad fyrir bøkuninni í pønnum. 32. Og nokkrir af Kahatítunum, þeirra brædur, voru settir yfir skodunar braudin, ad þeir tilreiddu þau, hvíldardag eptir hvíldardag. 33. Og þessir saungvarar, ættfedur Levítanna, voru fríir vid þjónustu í stúkunum, því dag og nótt hafa þeir starf. 34. Þessir ættfedur Levítanna eru, eptir þeirra ættlidum, høfudsmenn; þeir búa í Jerúsalem.

35. Og í Gibeon bjó fadir Gibeons, Jegiel, kona hans hét Maaka, 36. og hans sonur, sá frumgétni, Abdon, og hinir, Súr og Kis og Baal og Ner og Nadab, 37. Og Gedor og Ahio og Sakaría og Miklot. 38. Og Miklot gat Símeam, og þessir bjuggu líka gagnvart sínum brædrum í Jerúsalem, hjá sínum brædrum. 39. Og Ner gat Kis og Kis gat Sál og Sál gat Jónatan og Malkisúa og Abínadab og Esbaal. 40. Og sonur Jónatans var Meribbaal, og Meribbaal gat Míka. 41. Og synir Míka: Píton og Taherea. 42. Og Ahas gat Jaera, og Jaera gat Alemet og Asmavet og Simri, og Simri gat Mosa, 43. og Mosa gat Binea, og hans son var Nefaja, hans son Elasa, hans son Asel. 44. Og Asel átti 6 sonu, sem hétu: Asríkam, Bokru og Jismael og Searía og Obadía og Hanan. Þad eru synir Asels.

## 11. Kapítuli.

Sál og Jónatan falla. (Samanber 1 Sam. 31)

1. Og Filistear fóru í stríd móti Jsrael, og Jsraels menn flýdu fyrir Filisteum, og (margir) féllu á Gilbóa fjøllum. 2. Og Filistear sóktu fast ad Sál og sonum hans, og feldu Jónatan og Abínadab og Malkisúa, syni Sáls. 3. Og bardaganum halladi á Sál, og bogmennirnir hittu hann, og hann vard hræddur vid skotin. 4. Þá mælti Sál vid sinn skjaldsvein: bregd þú þínu sverdi og legg mig í gégn med því, svo þessir óumskornu komi ekki, og fari háduglega med mig. En hans skjaldsveinn vildi ekki, því honum vard bilt vid. Þá tók Sál sverdid og lét fallast á þad, 5. og sem skjaldsveinninn sá, ad Sál var daudur, lét hann og fallast á sverdid og dó. 6. Þannig dó Sál og hans þrír synir, og allt hans hús dó med. 7. Og sem allir Jsraels menn á sléttlendinu sáu, ad (Jsraels menn) flýdu, og ad Sál og hans synir vóru fallnir, yfirgáfu þeir sína stadi og flýdu; og Filistear komu og bjuggu þar.

8. Daginn eptir komu Filistear ad fletta (ræna) þá sem fallid høfdu, og fundu Sál og hans þrjá syni fallna á Gilbóa fjalli. 9. Og þeir flettu hann, og tóku hans høfud og hans

herțýgi, og sendu þetta um kríng í Filistea landi,
til ad færa tídindi þeirra godum og þeirra fólki.
10. Og þeir løgdu hans vopn í hús þeirra
Guds, og negldu hans høfudskél upp í Dagons
hús. 11. Og allir sem bjuggu í Jabes og
Gilead heyrdu allt þad er Filistear høfdu gjørt.
12. Þá tóku sig til allir øruggir menn, og tóku
Sáls líkama og líkami sona hans, og fluttu þá
til Jabes og jørdudu þeirra bein undir eikinni
í Jabes og føstudu 7 daga. 13. Og svo dó
Sál sakir sinna misgjørda sem hann hafdi
framid mót Drottni, vegna Drottins ords, sem
hann ekki hlýdnadist, og vegna þess líka, ad
hann hafdi farid til frétta vid galdra konuna.
14. En Drottinn adspurdi hann ekki: því
lét hann hann deya, og hneigdi Kóngsríkid til
Davíds sonar Isaí.

## 12. Kapítuli.

Davíd verdur Kóngur; Jerúsalem unnin. Davíds
kappar. (2 Sam. 5, 1—10. 23, 8—39).

1. Og allur Israel safnadist til Davíds í
Hebron, og þeir søgdu: vér erum þín bein og
hold. 2. Adur varst þú sá, medan Sál ennú
var Kóngur, sem leiddir Israel út og inn; og
Drottinn þinn Gud hefir sagt vid þig: þú skalt
vakta mitt fólk Israel, og þú skalt vera høfd-
íngi yfir mínu fólki Israel. 3. Og svo komu
allir þeir eldstu í Israel til Kóngsins í Hebron,
og Davíd gjørdi sáttmála vid þá í Hebron fyrir
Drottni; og þeir smurdu Davíd til Kóngs yfir
Israel, eptir ordi Drottins fyrir (munn)
Samúels.

4. Og Konúngurinn fór og allur Israel til
Jerúsalem, þad er Jebús; en þar voru Jebú-
sítar, innbúar landsins. 5. Og innbyggjararn-
ir í Jebús søgdu vid Davíd: þú munt ei kom-
ast hér inn. En Davíd nádi kastalanum Sion,
þad er Davíds borg. 6. Og Davíd mælti:
hvør sem fyrstur vinnur Jebúsítana, sá skal
verda høfdíngi og herforíngi. Og Jóab son-
ur Seruja gékk fyrstur upp (í borgina) og vard
høfdíngi. 7. Og Davíd bjó í borginni, því
kølludu menn hana Davíds borg. 8. Og
hann byggdi stadinn allt um kríng frá Milló,
og umhverfis, og Jóab endurlífgadi hid annad
af stadnum. 9. Og Davíd efldist meir og meir,
og Drottinn allsherjar var med honum.

10. Þessir eru þeir helstu kappar sem Da-
víd hafdi, sem héldu honum fast til ríkis med
øllum Israel, til ad gjøra hann ad Kóngi,
eptir ordi Drottins, yfir Israel. 11. Og þessi
er tala þeirra kappa sem Davíd hafdi: Jaso-
beam, sonur Hakmons, høfdíngi vagnlidsins,
sá hinn sami veifadi sínu spjóti yfir þrem hundr-
udum ad velli løgdum í einu.

12. Og eptir hann Eleasar, sonur Dodos,
Ahoita, hann var einn af þeim þremur køpp-
um. 13. Sá sami var hjá Davíd í Pas-
Damim, (1 Sam. 17, 1.), þegar Filistear voru
þar samankomnir til stríds; og þar var akur-
partur, vaxinn byggi, og fólkid flúdi fyrir Fi-
listeum; 14. þá geingu þeir midt á akurinn,
og frelsudu hann, og feldu Filistea, og Drott-
inn veitti mikinn sigur. 15. Og þrír af þeim
þrjátíu høfdíngjum fóru nidur til Davíds hjá
klettinum, í hellirinn Adullam, og herbúdir Fi-
listea lá í dalnum Refaim. 16. En Davíd
var þá í víginu (á fjallhædinni), og Filistear
høfdu setulid í Betlehem. 17. Og Davíd hafdi
laungun og mælti: hvør sækir mér vatn ad
drekka, í brunninn, i Betlehem vid hlidid? 18.
Þá brutust þeir þrír gégnum herbúdir Filiste-
anna, og jusu vatn úr brunninum í Betlehem
vid hlidid, og tóku og færdu Davíd; en hann
vildi ekki drekka þad, og hellti því nidur fyrir
Drottni, 19. og mælti: Gud láti mér fjærri
vera, ad gjøra slíkt! skyldi eg drekka blód þess-

V. 2. Vakta: eiginlega halda til haga. V. 3. (Munn: eig: hønd).

ara' manna med þeirra lífshættu? því med eg-
in lífsháska hafa þeir sókt það og hann vildi
ekki drekka það. Þetta gjørdu þeir þrír kappar.

20. Og Abísai, bródir Jóabs, sá sami var
høfudsmadur yfir (ødrum) þremur; og hann
veifadi sínu spjóti yfir þrjú hundrud ad velli
lagda og hafdi mikid nafn medal þeirra þrigg-
ja. 21. Fram yfir þá þrjá af annari rød
var hann heidradur, en ekki kom hann til jafns
vid hina þrjá.

22. Benaja sonur Jójada, sem var sonur dug-
legs manns, er afreksverk hafdi unnid, af Kab-
sel, sá hinn sami feldi tvø Guds ljón af Mó-
ab; og hinn sami fór til og drap ljónid í grif-
junni, í kafaldi. 23. Og hinn sami feldi E-
gyptska manninn, mann sem var 5 álnir á
hæd, og í hønd þess Egyptska var spjót sem
vefjarrifur, og hann fór á móti honum med
staf, og reif spjótid úr hendi þess Egyptska,
og drap hann med hans spjóti. 24. Þetta
gjørdi Benaja sonur Jójada, og hann hafdi
nafn medal þeirra þriggja kappanna. 25.
Fram yfir þá þrjátíu var hinn sami heidrad-
ur, en vid þrjá þá fyrstu jafnadist hann ekki.
Og Davíd gjørdi hann ad sínu leyndarrádi.

26. Og strídskapparnir voru: Asahel, bród-
ir Jóabs; Elhanan, sonur Dodos, af Betle-
hem; 27. Samot, Haroriti, Heles, Peloniti;
28. Ira, sonur Ikes, Tekoíta; Abieser, Antó-
títi; 29. Síbekai, Hosatíti; Ilai, Ahohíti; 30.
Maherai, Netofatíti; Heled, sonur Baena, Ne-
tofatíti. 31. Itai, sonur Ribai, frá Gíbea í
Benjamíns ættkvísl; Benaja, Piratoníti; 32.
Hurai, frá Nahale - Gaas, Abiel, Arbatíti;
33. Asmavet, Baherumíti; Eliaba, Saalboníti;
34. Bene-Hasem, Gísoníti; Jónatan, sonur Sage,
Hararíta; 35. Ahiam, sonur Sakars, Hararít-
ans; Elifal, sonur Urs; 36. Hefer, Mekera-
títi; Ahia, Peloníti; 37. Hesro, Karmelíti; Na-
arai, sonur Esbai; 38. Jóel, bródir Natans;
Míbehar, sonur Hagri; 39. Selek, Ammóníti;
Naherai, Berotíti, skjaldsveinn Jóabs, sonar
Serúju; 40. Ira, Jetríti, Gareb, Jetríti; 41.
Uria, Hetíti; Sabad, sonur Ahelai; 42. Adina,
sonur Sísa, Rúbeníta, høfdíngi Rúbeníta, og hjá
honum voru þrjátíu; 43. Hanan, sonur Maeka;
Jósafat, Mitníti; 44. Usía, Asteratíti; Sama
og Jejel, synir Hótams, Aróeríta; 45. Jedja-
el, sonur Simri, og Jóha, hans bródir, Ti-
síti; 46. Eljel, Maheviti; Jeribai og Jósavia,
synir Elnaams; og Jitma, Móabíti; 47. El-
jel og Obed og Jaesiel - Hamesobaia.

## 13. Kapítuli.

*Þeir sem geingu Davíd á hønd í Siklag og gjørdu hann ad Kóngi í Israel.*

1. Þessir eru þeir sem komu til Davíds í
Siklag, þá hann var farinn í útlegd fyrir Sál,
syni Kis, og hinir sømu voru medal kapp-
anna, sem hjálpudu honum ad strída, 2. bog-
menn, sem køstudu steinum med hægri og vinst-
ri hendi, og skutu ørvum af boga, af brædr-
um Sáls, af Benjamín: 3. høfdínginn Ahies-
er og Jóas, synir Semaa - Gibeatíta, og Je-
siel og Pelet, synir Asmavets, og Beraka og
Jehú, Antotíti, 4. og Jesmaja, Gibeoníti, kappi,
einn af þeim þrjátíu, og yfir þeim þrjátíu, og
Jeremía og Jehasiel, og Jóhanan og Jósabad,
Gederatíti, 5. Eleasai og Jerimót og Bealia,
og Samaría og Safatía, Harofíti, 6. Elkana
og Jisia og Asareel og Jóeser og Jasobeam,
Korahitar, 7. og Jóela og Sebadia, synir Je-
róhams frá Gedor. 8. Og frá Gadítum komu til
Davíds í vígid í eydimørkinni, kappar, strídsmenn,
vopnadir skjøldum og spjótum, útlits sem ljón,
og sem rádýr fljótir um fjøllin. 9. Eser, sá
fyrsti, Obadia, sá annar; Eliab, sá þridji, 10.
Mismanna, sá fjórdi, Jeremia sá fimti, 11.
Atai, sá sjøtti, Eliel, sá sjøundi; 12. Jóhan-
an, sá áttundi; Elsabad sá níundi; 13. Jere-

mía sá tíundi; Makbanai, sá ellefti. 14. Þessir voru synir Gads (frá Gad) herforíngjar, sá minnsti yfir hundrad manns, sá mesti yfir þúsund. 15. Þessir eru þeir sem fóru yfir Jórdan, í fyrsta mánudi, þá hún flaut uppá bakka og ráku á flótta alla þá sem bjuggu í dalnum, til austurs og vesturs. 16. Og nokkrir komu, af sonum Benjamíns og Júda, í vígid til Davíds. 17. Og Davíd gékk út til þeirra, tók svo til orda og mælti vid þá: ef þér komid til mín med fridi, til ad veita mér lid, þá hneigist mitt hjarta til félagsskapar vid ydur; en ef til þess, ad svíkja mig í hendur mínum óvinum, án þess ránglæti sé í minni hendi, svo sjái þad Gud fedra vorra, og dæmi! 18. Þá greip andinn Amasai, høfudsmann vagnlidsins, (og hann mælti): þínir erum vér, Davíd! þér fylgjum vér, til lukku, til lukku þér, og til lukku þínum lidsmønnum, því þinn Gud hjálpar þér. Og Davíd tók vid þeim og setti þá yfir sína herflokka.

19. Og af Manasse fóru (nokkrir) til Davíds, þá hann kom med Filisteum til stríds á móti Sál, en hjálpadi þeim þó ekki, því høfdíngjar Filisteanna létu hann frá sér, eptir ad hafa rádgast um þad, því þeir søgdu: gángi hann í lid med sínum herra Sál, gétur þad kostad vort líf! 20. Þá hann fór til Siklag geingu í lid med honum af Manassis: Adna og Jósabad og Jedjael og Mikael og Jósabad og Elíhú og Siltai, flokksforíngjar af Manassis. 21. Og hinir sømu hjálpudu Davíd móti óeirdar flokkum, því stríds kappar voru þeir allir, og urdu yfirmenn í hernum. 22. Því dag eptir dag komu fleiri og fleiri til Davíds ad hjálpa honum, þángad til hann hafdi feingid mikinn her, líkann Guds her.

23. En þetta er manntal þeirra til stríds útbúnu sem komu til Davíds í Hebron, til ad afla honum Kóngsríkis Sáls, eptir bodi Drottins. 24. Júda synir, sem báru skjøld og spjot, (voru) sex þúsund og 8 hundrud, útbúnir til stríds. 25. Af sonum Símeons, hraustir til bardaga, 7 þúsund og hundrad betur. 26. Af sonum Leví, 4 þúsund og 6 hundrud. 27. Og Jójada, høfdíngi (kominn) af Aron, og med honum 3 þúsund og 7 hundrud, 28. og Sadok, røskur úngur madur, og hans ættmenn, 22 foríngjar; 29. og af sonum Benjamíns, brædrum Sáls, 3 þúsund; en þángad til hélt mesti partur af þeim, enn nú med Sáls húsi; 30. Og af sonum Efraims, 20 þúsund og 8 hundrud røskir menn, nafnfrægir medal sinna ættmanna; 31. og af hálfri Manassis ættkvísl, 18 þúsund, sem nefndir voru til med nafni, ad fara, og gjøra Davíd ad Kóngi; 32. Og af sonum Isaskars, sem vissu kríngumstædurnar, og sáu hvad Israel vard ad gjøra; þeirra foríngjar voru 200, og allir þeirra brædur hlýddu þeirra ordum; 33. Af Sebúlon, sem útfóru í stríd, og útbúnir voru til stríds med øllum stríds vopnum, 50 þúsund, til ad gánga hispurlaust í orustur; 34. Og af Naftalí, þúsund foríngjar, og med þeim 37 þúsund med skjøld og spjót. 35. Og af Danítum, útbúnir til stríds, 28 þúsund og 6 hundrud; 36. og af Aser, sem útgeingu í stríd, til ad heya orustur, 40 þúsund; 37. Og úr (landinu) hinumegin vid Jórdan, af Rúbenítum og Gadítum og af hálfri Manassis ættkvísl, med øllum strídsvopnum til stríds, hundrad og 20 þúsundir. 38. Allir þessir strídsmenn, sem nidurskipudu bardaganum med einlægum hjørtum, komu til Hebron, til ad gjøra Davíd ad Kóngi yfir allann Israel; og líka voru allir adrir í Israel einhuga i því ad gjøra Davíd ad Kóngi. 39. Og þeir voru þar hjá Davíd í þrjá daga, og átu og drukku, því þeirra brædur tilreiddu þeim, (veitslu). 40. Og líka færdu þeir þángad,

sem nærri þeim bjuggu, (allt til Ísaskars og Sebúlon og Naftalí), braud, á øsnum, úlføldum, múløsnum og nautum, mél=mat, fíkjur og rúsínur, og vín og vidsmjør, og naut og saudi yfirgnæfanlega; því føgnudur var í Ísrael.

## 14. Kapítuli.

Davíd vill flytja ørkina til Jerúsalem. (2 Sam. 6. 1—11).

1. Og Davíd rádgadist um vid høfudsmennina yfir þúsund, og yfir hundrad, vid alla herforíngjana. 2. Og Davíd mælti vid allann Ísraels søfnud: ef ydur sýnist svo, og sé þad frá Drottni, vorum Gudi, þá látum oss senda til vorra annara brædra, í øllu Ísraelslandi, og med þeim, til prestanna og Levitanna, í þeirra forstada stødum, ad þeir komi á fund vid oss; 3. og látum oss flytja ørk vors Guds til vor; því vér høfum ekki um hana hyrdt sídan á døgum Sáls. 4. Og allur søfnudurinn sagdi, ad menn skyldu gjøra svo; því øllu fólkinu líkadi þetta vel. 5. Og svo safnadi Davíd saman øllum Ísrael, frá Egyptalands Níl, allt til Hemat, til ad sækja Guds ørk til Kirjat=Jearim. 6. Og Davíd og allur Ísrael fór til Baala ɔ: Kirjat=Jearim, í Júdeu, til ad flytja þadan Guds ørk, Drottins, sem situr yfir Kérúbunum, hvar nafnid verdur ákallad. 7. Og þeir fluttu Guds ørk á nýann vagn úr húsi Abínadabs; en Úsa og Ahíó óku vagninum. 8. Og Davíd og allur Ísrael lék fyrir Gudi af øllu megni, med saung og hljódpípum og hørpum og trumbum, bjøllum og básúnum. 9. En sem þeir komu til Kídons hlødu, útrétti Úsa sína hønd, til ad grípa til arkarinnar; því aknøytin høfdu vikid af leid. 10. Þá upptendradist Drottins reidi gégn Úsa, og hann sló hann fyrir þad, ad hann útrétti sína hønd til arkarinnar, og hann dó þar fyrir Gudi. 11. Þá vard Davíd hryggur, af því Drottinn hafdi sleigid Úsa, og hann kalladi þann sama stad Peres=Úsa; (svo heitir stadurinn) til þessa dags. 12. Og Davíd vard hræddur vid Drottinn á þeim sama degi og mælti: hvørnig skal eg flytja til mín Guds ørk? 13. Og Davíd flutti ekki ørkina til sín í Davíds borg, heldur setti hana í hús Obed=Edoms, Gadítans. 14. Og svo var Guds ørk í húsi Obed=Edoms, í hans húsi, í þrjá mánudi. Og Drottinn blessadi Obed=Edoms hús og allt hvad hans var.

## 15. Kapítuli.

Davíds húsabyggíng, konur og børn, stríd vid Filistea. 2 Sam. 5, 11—25.

1. Og Híram, Kóngur í Týrus, sendi menn til Davíds, og Sedrus vid, og múrara og timburmenn, til ad byggja honum hús. 2. Og Davíd kannadist vid ad Drottinn festi hann sem Konúng yfir Ísrael, og ad hans ríki efldist søkum hans fólks Ísraels. 3. Og Davíd tók sér fleiri konur í Jerúsalem, og eignadist fleiri syni og dætur; 4. En þetta eru nøfn þeirra sem honum fæddust í Jerúsalem: Sammúa og Sobab, Natan og Salómon. 5. Og Jíbar og Elísúa, 6. og Nóga og Nefeg og Jafía, 7. og Elísamma og Beeljada og Elífelet.

8. Og sem Filistear heyrdu ad búid var ad smyrja Davíd til Kóngs yfir allann Ísrael, løgdu allir Filistear af stad, til ad leita Davíds. Og sem Davíd heyrdi þad, fór hann móti þeim. 9. Og Filistear komu og dreifdu sér um dalinn Refaim. 10. Þá spurdi Davíd Gud og mælti: skal eg fara móti Filisteum, og munt þú géfa þá í mína hønd? Og Drottinn svaradi honum: far þú, og eg géf þá í þína hønd. 11. Þá fóru þeir til Baal=Prasím, og Davíd vann þá þar og mælti: Gud hefir fyrir mína hønd tvístrad mínum óvinum, einsog þá vatni er skvett. Því nefndi hann þann sama stad Baal=Prasím. 12. Og þeir létu þar eptir

sína Gudi, og Davíd baud, og þeir voru brendir í eldi.

13. Og Filistear komu aptur, og breiddust um dalinn. 14. Þá spurdi Davíd Gud í annad sinn, og Gud sagdi til hans: far þú ekki eptir þeim, snú þú frá þeim, og rádst þú á þá gagnvart mórberja skóginum, og þegar þú heyrir þyt fara yfir mórberja trén, þá legg til orustu, því Gud fer fyrir þér, til ad sigra her Filisteanna.

## 16. Kapítuli.

Sáttmálsørkin er flutt til Jerúsalem. 2 Sam. 6, 12—23.

1. Og hann byggdi sér hús í Davíds borg, og tilreiddi stad fyrir Guds ørk, og setti henni tjald. 2. Þá mælti Davíd: ørk Guds skal einginn bera nema Levítarnir, því þá hefir Drottinn valid til ad bera Guds ørk, til ad þjóna sér ad eilífu. 3. Og Davíd safnadi øllum Ísrael til Jerúsalem, til ad flytja Drottins ørk á sinn stad, sem hann hafdi henni tilreidt. 4. Og Davíd safnadi sonum Arons og Levítunum; 5. af sonum Kahats: Uriel, þeim ædsta, og hans brædrum 120. 6. Af sonum Merari: Asaja, þeim ædsta, og hans brædrum 220; 7. af sonum Gersoms: Jóel, þeim ædsta, og hans brædrum 130; 8. af sonum Elisafans: Semaja, þeim ædsta, og hans brædrum 200. 9. Af sonum Hebrons: Eliel, þeim ædsta, og hans brædrum 80; 10. af sonum Usiels Amminadab, þeim ædsta, og hans brædrum 112. 11. Og Davíd kalladi Sadok og Abiatar presta, og Levítana, Uriel, Asaja og Jóel og Semaja og Eliel og Amminadab, 12. og mælti til þeirra: þér erud høfudsmenn Leví ættlida, helgid ydur og ydar brædur, og flytjid ørk Drottins Ísraels Guds, á þann stad sem eg hefi henni tilreidt. 13. Af því þér gjørdud þad ekki í fyrra sinni, svo gjørdi Drottinn, vor Gud, skard vor á medal, þared vér leitudum hans ekki, sem vera bar. 14. Þá helgudu sig prestarnir og Levítarnir, til þess ad flytja ørk Drottins, Ísraels Guds. 15. Og svo báru Leví synir Guds ørk, einsog Móses baud, eptir ordi Drottins, á sínum ørlum, med staungunum (sem þeir løgdu) á sig. 16. Og Davíd baud þeim ædstu Levítum, ad þeir skyldu setja sína brædur saungvara med hljódfærum, hørpum, hljódpípum og básúnum, ad þeir syngju hvellt og upphefdu røddina med gledi. 17. Og Levítarnir tilsettu: Heman Jóelsson, og af hans brædrum Asaf, Berekíason; og af sonum Merari: þeirra brædur: Etan, Kusajason; 18. Og med þeim þeirra yngri brædur: Sakaria, Ben og Jaesiel og Semiramót, og Jehiel og Unni, Eliab og Benaja og Maeseia og Matítia og Elifelehú og Miknehú og Obed-Edom og Jegiel, dyraverdi; 19. Og saungvarar (voru) Heman, Asaf og Etan, ad syngja hátt, med eir básúnum; 20. og Sakaría og Asíel og Semíramot og Jehiel og Unni og Eliab og Maeseia og Benaia á hørpu med stúlku hljódum; 21. Og Matítia og Elifelehú og Miknehú og Obed-Edom og Jegiel og Asasía á hljódpípur, med djúpri rødd, sem forsaungvarar. 22. Og Kenania, (var) meistari Levítanna í saung, kéndi saung, því hann var vel ad sér. 23. Og Berekia og Elkana voru dyraverdir arkarinnar. 24. Og Sabania og Jósafat og Netaneel og Amasai og Sakaría og Benaja, og Elíeser, prestarnir, slóu trumbur fyrir Guds ørk. Og Obed-Edom og Jehia voru dyraverdir arkarinnar.

25. Og svo fór Davíd og enir eldstu í Ísrael, og høfdingjarnir yfir þúsund, ad sækja sáttmálsørk Drottins, í hús Obed-Edoms, med føgnudi. 26. Og sem Gud hjálpadi Levítunum, er báru sáttmálsørk Drottins, fórnfærdu þeir 7 nautum og 7 hrútum. 27. Og Davíd var klæddur lín kyrtli, og sømuleidis allir

Levítarnir sem báru ørkina, og saungvararnir, og Kenania meistari saungsins medal saungvaranna; og Davíd hafdi yfir sér línhøkul. 28. Og allur Israel flutti sáttmálsørk Drottins burt med fagnadarópi og básúnu hljómi, med trumbum og hornum, hvellum hørpum og hljódpípum. 29. Og sem sáttmálsørk Drottins kom til Davíds borgar, leit Mikol, dóttir Sáls, út um gluggann, og sá Davíd Kóng støkkva og dansa, og fyrirleit hann í sínu hjarta.

## 17. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og þeir fluttu inn (í borgina) Guds ørk og settu hana í tjaldid sem Davíd hafdi reist og offrudu þar brennifórn og þakkarfórn. 2. Og sem Davíd hafdi endad brennifórnar og þakkarfórnar offrid, blessadi hann fólkid í nafni Drottins. 3. Og hann útbítti øllum Israel, mønnum og konum, sérhvørjum heilu braudi og (kjøt) stikki og mælir víns. 4. Og hann skipadi nidur, fyrir framan Drottins ørk, Levítunum til þjónustu ad þeir skyldu prísa, lofa og vegsama Drottinn, Israels Gud: 5. Asaf, sem þeim fyrsta, og sem ødrum, næst honum, Sakaria; Jegiel og Simiramot og Jehiel og Matitia og Elíab og Benaja og Obed-Edom og Jegiel med hørpum og hljódpípum; og Asaf med hvellu horni. 6. Og Benaja og Jehasiel, prestar (blésu) jafnvel í básúnur fyrir framan Guds sáttmáls ørk. 7. Þá á þeim sama degi lét Davíd fyrst þakka Drottni fyrir (milligaungu) Asafs og hans brædra (þannig). 8. Þakkid Drottni, ákallid hans nafn, gjørid kunnug hans verk medal fólksins! 9. Sýngid honum, leikid fyrir honum, yrkid um allar hans dásemdir! 10. stærid (hrósid) ydur af hans heilaga nafni, þeirra hjarta sem leita Drottins gledji sig! 11. leitid Drottins og hans dýrdar, leitid hans auglitis alla tíma! 12. munid til þeirra dásemda, sem hann hefir gjørt, hans jardteikna, og dóma hans munns, 13. þér Israels børn, hans þjónar, synir Jakobs, hans útvøldu. 14. Hann, Drottinn, er vor Gud; hans dómar (eru) á allri jørdunni. 15. Munid ávalt til hans sáttmála, þess ords, sem hann hefir bodid, í þúsund ættlidi, 16. þess sáttmála sem hann gjørdi vid Abraham og sem hann sór Isaak; 17. og hann setti þad Jakob sem reglu, Israel eilífann sáttmála, 18. og sagdi: þér vil eg géfa Kanaans land svo sem ydur útmælda erfd; 19. þá vorud þér enn nú lítill hópur, fáir og framandi í landinu. 20. Þá fóru þeir frá fólki til fólks, og frá einu Kóngsríki til annarar þjódar. 21. Hann leyfdi eingum ad undirþrikkja þá, og straffadi Kóngana sakir þeirra. 22. (Og sagdi) „snertid ekki mína smurdu og gjørid ekkért íllt mínum spámønnnm".

23. Sýngid Drottni, (sjá Sálm. 96) øll lønd, kunngjørid, dag frá degi, hans hjálp! 24. Segid frá hans dýrd medal þjódanna, frá hans dásemdar verkum medal alls fólks. 25. Því mikill er Drottinn og mjøg loflegur, og óttalegur fram yfir alla Gudi; 26. því allir Gudir þjódanna eru afgudir, og Drottinn hefir gjørt himinin. 27. Hátign og ljómi er fyrir hans augliti, heidur og føgnudur í hans bústad. 28. Géfid Drottni, þér þjóda kynkvíslir, heidur og lof! 29. géfid Drottni heidur hans nafns, framberid gáfur og komid fyrir hann! og tilbidjid Drottinn í heiløgum skrúda! 30. nøtrid fyrir honum øll lønd, heimurinn stendur og bifast ekki. 31. Himinin gledjist og jørdin fagni; menn segi medal þjódanna: Drottinn er Konúngur! 32. Sjórinn þjóti upp, og þad sem hann fyllir, gladvært sé eingid og allt sem á því er; 33. skógar-

V. 1. 2 Sam. 6, 17. V. 2. 2 Sam. 6, 18. V. 8. Sálm. 105, 1—18. Esa. 12, 4.

ins tré fagni Drottni, því hann kémur til ad dæma jørdina.

34. Þakkid Drottni, (Sálm. 107, 1) því hann er gódgjarn, og eilíf er hans nád! 35. og segid: (Sálm. 106, 47) hjálpa oss Gud, vor hjálp, og safna oss, og bjarga oss frá þjódunum, ad vér prísum þitt heilaga nafn, ad vér hrósum oss af þínu lofi. 36. Vegsamadur sé Drottinn Gud Israels frá eilífd til eilífdar! og allt fólkid segi: Amen! og lofi Drottinn!

37. Og hann setti hjá sáttmáls ørk Drottins, Asaf og hans brædur, til ad þjóna stødugt fyrir ørkinni dag eptir dag; 38. Og Obed-Edom, og þeirra brædur, 68, og Obed-Edom, Jeditúns son og Hosa, sem dyraverdi. 39. Og Sadok prest, og hans brædur, prestana, (setti hann) fyrir tjaldbúd Drottins á hædina í Gibeon, 40. til ad færa Drottni brennifórnir á brennifórna altarinu støduglega, kvøld og morgun, allt eins og skrifad stendur í løgmáli Drottins, sem hann baud Israel (ad halda); 41. og med þeim Heman og Jedutún, og adra útvalda sem med nafni voru til teknir, ad þakka Drottni, ad hans nád væri eilíf. 42. Og med þeim Heman og Jedutún med trumbum og básúnum ad hljóma og med hljódfærum Guds; og syni Jedutúns fyrir dyraverdi. 43. Og svo gékk allt fólk, hvør heim til sín, og Davíd fór og burt til ad heilsa sínu húsi.

## 18. Kapituli.

Davíd áformar ad byggja musteri. (2 Sam. 7.)

1. Og þad skédi, þá Davíd bjó í sínu húsi, ad hann sagdi vid spámanninn Natan: sjá! eg bý í húsi af Sedrusvid, og sáttmáls ørk Drottins, (er) undir dúkum. 2. Og Natan sagdi til Davíds: gjør þú allt hvad þér er í hug, því Gud er med þér. 3. Og á þeirri sømu nóttu kom Guds ord til Natans, og mælti: 4. far þú og tala vid minn þjón Davíd: svo segir Drottinn: þú skalt ekki byggja mér hús til íbúdar. 5. Eg hefi ekki í húsi búid sídan þann dag ad flutti Israel híngad, allt til þessa dags, og eg gékk úr tjaldi í tjald, og úr bústad (í bústad). 6. Allan þann tíma þá eg var á ferd med øllum Israel, hefi eg þá talad eitt ord vid nokkurn Israels dómara og sagt: því byggid þér mér ekki hús af Sedrusvid? 7. Og seg nú mínum þjón Davíd: svo segir Drottinn Allsherjar: eg hefi tekid þig úr haglendinu frá hjørdinni til høfdíngja yfir mitt fólk Israel, 8. og var med þér hvørt sem þú fórst, og upprætti alla þína óvini frá þér, og eg hefi gjørt þitt nafn likt nafni hinna miklu á jørdinni, 9. og hefi géfid bústad mínu fólki Israel og gródursett þad, ad þad býr á sínum stad og verdur ei framar óróad, og límskunnar synir skulu ei framar plága þad, eins og ádur, 10. og frá þeim tíma ad eg setti dómara yfir mitt fólk Israel; og eg hefi audmýkt alla þína óvini og kunngjørt þér, ad Drottinn muni hús byggja. 11. Þegar þínir dagar eru allir, svo þú fer til allra þinna fedra, svo vil eg upphefja ætt þína eptir þig, einn af þínum sonum, og stadfesta hans Konúngdóm. 12. Sá hinn sami skal byggja mér hús, og eg vil festa hans hásæti ad eilífu. 13. Eg vil vera hans fadir og hann skal vera minn son! og eg vil ekki draga mína nád í hlé vid hann, eins og eg dróg hana í hlé vid þann sem var fyrir þig (Kóngur). 14. Heldur vil eg stadfesta hann í mínu húsi og Kóngs ríki ad eilífu, og hans hásæti skal fast vera eilíflega. 15. Samkvæmt øllum þessum ordum og allri þessari opinberan taladi Natan vid Davíd. 16 Þá gékk Davíd Konúngur inn (í tjaldbúdina) og settist fyrir augsýn Drottins og mælti: hvør em eg Gud, Drottinn, og hvad mitt hús ad þú hefir annast mig híngad til? 17. Og þad var

of lítid fyrir þínum augum Gud, og þú gafst
húsi þíns þjóns fyrirheit (áleingdar) sem á sér
lángann aldur, og hefir litid á mig eptir mann-
legum hætti, þú Gud Drottinn í hædinni!
18. Hvad skal Davíd enn framar (segja) vid
þig um heidur þíns þjóns? þú þekkir þinn
þjón. 19. Drottinn! sakir þíns þjóns og
eptir þínum vilja hefir þú gjört allt þetta mikla
og kunngjört allt þetta mikla. 20. Drottinn,
einginn er sem þú, og einginn Gud nema þú,
öldúngis eins og vér höfum heyrt med vorum
eyrum. 21. Og hvör (þjód) er sem þitt fólk
Ísrael, þjód á jördunni, sem Gud er kominn til
ad leysa sér fyrir fólk, og þér nafn ad gjöra
med mikilleika og ógnunum, í því þú rakst burt
þjódir frá þínu fólki, sem þú leystir úr Egypta-
landi? 22. Og svo hefir þú ad eilífu gjört
þitt fólk Ísrael ad þínu fólki, og þú Drottinn
ert ordinn því Gud. 23. Og nú, Drottinn,
þad ord sem þú hefir talad um þinn þjón og
hans hús verdi satt og eilíft, og gjör eins og
þú hefir talad. 24. Já, verdi þad satt og þitt
nafn verdi vegsamlegt ad eilífu, svo menn segi:
Drottinn herskaranna er Ísraels Gud, er Gud
í Ísrael, og hús Davíds þíns þjóns sé stad-
fast fyrir þér! 25. Þú, minn Gud, hefur op-
inberad þínum þjóni, ad þú vilt byggja hon-
um hús; þar fyrir hefir þinn þjón rádist í ad
tilbidja þig. 26. Og nú Drottinn, þú ert Gud,
og þú hefir heitid þessi gjædi þínum þénara.
27. Og lát þér nú þókknast ad blessa hús þíns
þjóns, ad þad sé eilíflega (ríki yfir Ísrael)
frammi fyrir þér; því sá er eilíflega blessadur,
sem þú Drottinn blessar.

## 19. Kapítuli.

Sigurvinníngar Davíds. Hans embættismenn. (2 Sam. 8).

1. Eptir þetta vann Davíd Filisteana,
og beigdi þá, og tók úr hendi Filisteanna Gat
og hennar dætur. 2. Og hann sigradi Móa-
bítana, og Móabítar urdu Davíds þegnar og
færdu (honum) gáfur. 3. Og Davíd vann
Hadareser Kónginn í Sóba í Hemat, þá hann
fór til ad grundvalla sitt veldi vid ána Frat.
4. Og Davíd tók af honum þúsund vagna og
7 þúsund reidmenn og 20 þúsund fótgaungu-
lids, og lesti alla vagnhestana, og héldt ad eins
eptir af þeim einu hundradi. 5. Og Sýrlendsk-
ir frá Damaskus komu til lids vid Hadareser,
Kónginn í Sóba, og Davíd feldi af Sýrlendsk-
um 22 þúsund manns. 6. Og Davíd lét setu-
lid vera í Damaskus á Sýrlandi, og Sýrlendsk-
ir urdu Davíds þegnar, sem færdu (honum)
gáfur. Þannig veitti Drottinn Davíd sigur,
hvört sem hann fór. 7. Og Davíd tók gull
skyldina, sem Hadaresers þegnar báru og flutti
þá til Jerúsalem. 8. Og úr Tibehad og úr
Kún, borgum Hadaresers tók Davíd mjög mik-
id eir. Þar af gjördi Salómon eirhafid, og
stólpana og eir-áhöldin. 9. Þá Toú Konúng-
urinn í Hemat a) heyrdi, ad Davíd hefdi sigr-
ad alla makt Hadaresers Kóngsins í Sóba,
10. sendi hann Hadoram, son sinn, til Davíds
Kóngs, til ad spyrja um hans velgeingni, og
óska honum til lukku, ad hann hafdi barist vid
Hadareser og unnid hann, (því Toú var í
stridi vid Hadareser) og (líka sendi hann) alls-
konar kér af gulli, silfri og eiri. 11. Einneig-
in þessi helgadi Davíd Konúngur Drottni, á-
samt med því silfri og gulli, sem hann hafdi
tekid af öllum þjódum, af Edómítum og Móa-
bítum, og af Ammonssonum og af Filisteum,
og af Amalekítum. 12. Og Abisai, sonur Se-
rúja, vann Edómíta í saltdalnum, 18 þúsund
ad tölu. 13. Og hann lagdi setulid í Edom,
og allt Edomsland komst undir Davíd. Og þann-
ig gaf Drottinn Davíd sigur hvört semhann fór.

V. 21. Deut. 4, 7. 2 Sam. 7, 23. V. 27. 2 Sam. 7, 29. V. 9. a. 2 Sam. 8, 9. fl.

14. Og Davíd ríkti yfir øllum Israel, og lét allt sitt fólk njóta laga og réttinda. 15. En Jóab sonur Serúja var yfir hernum, og Jósafat, sonur Ahiluds var Kanselleri, 16. og Sadok sonur Ahitubs, og Abimelek, sonur Abiatars voru prestar, og Savsa skrifari. 17. Og Benaja sonur Jójada var yfir lífvaktinni, og synir Davíds voru þeir fyrstu vid Kóngsins hønd.

## 20. Kapítuli.

Sigur yfir Ammonítum og Sýrlendskum. 2 Sam. 10.

1. Eptir þetta andadist Nahas, Kóngur Ammonssona, og hans son vard Kóngur í hans stad. 2. Þá sagdi Davíd: eg vil sýna Hanon syni Nahas vinskap, því fadir hans sýndi mér vinskap; og Davíd sendi menn ad hugga hann þá hann harmadi fødur sinn. Og svo komu Davíds þjónar í land Ammonsbarna til Hanons, til ad hugga hann. 3. Þá søgdu høfdíngjar Ammonssona til Hanons: sýnist þér Davíd heidra fødur þinn, ad hann sendir þér huggara? Eru ekki hans þjónar komnir til til þín í þeim tilgángi ad ransaka landid, eydileggja og njósna? 4. Þá tók Hanon Davíds þjóna og spéskar þá, og sneid af þeim hálf klædin allt ad mjødmum og lét þá svo fara. 5. Og menn komu og søgdu Davíd frá (hvørnig farid var) med mennina, þá sendi hann á móti þeim, því mennirnir voru mjøg svívirdtir, og sagdi: verid í Jerikó þángad til ydar skégg sprettur, og komid svo aptur.

6. Og sem Ammonssynir sáu, ad þeir voru illa þokkadir hjá Davíd, sendi Hanon og Ammonssynir þúsund vættir (centener) silfurs, til þess ad leigja sér vagna og reidmenn frá Mesópótamía, frá Syríu-Maaka og frá Sóba, 7. og þeir leigdu tvær og þrjátýgi þúsundir vagna, og Kóng Maaka med lidi hans, og þeir komu, og settu herbúdir fyrir framan Meaba, og synir Ammons søfnudust saman úr borgum þeirra, og komu til bardagans. 8. En þá Davíd heyrdi þad, sendi hann Jóab med allann kappa herinn. 9. Og synir Ammons fóru út, og fylktu (lidi sínu) til orustu vid borgarhlidid, en Kóngarnir, sem komnir vóru, (fylktu sér) útaf fyrir sig á vøllunum. 10. Nú sá Jóab sér búinn bardaga bædi á bak og fyrir, og hann útvaldi allt valid lid í Israel, og fylkti því til orustu móti Sýrum, 11. en hitt fólkid setti hann undir hønd bródur síns Abísaí og þeir bjuggu sig út móti sonum Ammons, 12. og hann (Jóab) sagdi: ef Sýrar bera mig ofurlidi, þá skaltu vera mér til hjálpar, en ef synir Ammons verda þér sterkari, þá mun eg hjálpa þér. 13. Vertu øruggur og berjumst hraustlega vegna vors fólks, og vegna stada vors Guds. Drottinn gjøri hvad honum þóknast a). 14. Og Jóab rédist ásamt því lidi sem med honum var, til orustu í móti Sýrum, og þeir flúdu undan honum. 15. Þegar synir Ammons sáu, ad Sýrar flúdu, héldu þeir einnig á flótta fyrir Abísaí bródur hans, og fóru inní borgina, en Jóab kom til Jerúsalem. 16. Og þá Sýrar sáu, ad þeir voru (á flótta) reknir fyrir Israels andliti, sendu þeir út bod, ad Sýrar tækju sig upp, sem voru hinumegin fljótsins (Frat), og Sófak hershøfdíngi Hadaresers var fyrir þeim, 17. og þad var sagt Davíd, og hann safnadi saman øllum Israel, og fór yfir Jórdan, og kom ad þeim og bjóst (til orustu) móti þeim, og (þá) Davíd med fylktu lidi hádi orustu vid Sýra, børdust þeir móti honum, 18. en Sýrar flúdu undan Israel, og Davíd feldi af Sýrum 7 þúsund vagna, (riddaralids) og 40 þúsund fótgaungulids, og líka drap hann Sófak hershøfdíngja. 19. En þá þénarar Hadaresers sáu, ad þeir voru feldir af Israel, gjørdu þeir frid vid

V. 15. fl. 2. Sam. 8, 16. fl. V. 13. a. 1 Sam. 3, 18. Postgb. 21, 14.

Davíd, og urdu hans þegnar; og Sýrar vildu ekki framar veita lid sonum Ammons.

## 21. Kapítuli.

Davíd herjar á Ammoníta, og Filistea.

1. Og þad skédi, ad ári lidnu, á þeirri tíd sem Kóngarnir fara út (í hernad) þá tók Jóab med sér megin herinn, og eydilagdi land Ammons sona, kom og settist um Rabba, en Davíd sat um kyrrt í Jerúsalem og Jóab vann Rabba og braut hana nidur. 2. Og Davíd tók Kórónu þeirra Konúngs af høfdi honum, og fann ad hún var úr gulli 100 pund med dýrum steinum í, og hún var sett á Davíds høfud; og hann flutti mikid herfáng úr borginni. 3. Og fólkid sem þar var inni leiddi hann út, og lét saga med søgum, og med þreskíngar járn sledum, og med søgum. Og svo gjørdi Davíd vid allar borgir Ammonssona; og Davíd fór og allt fólkid aptur til Jerúsalem.

4. Eptir þetta hófst stríd í Geser vid Filisteana. Þá Sibbeki Húsatíti a) lagdi ad velli Sippai, (sem var) af sonum Rafa, og þeir urdu audmýktir (sigradir) b). 5. Enn nú átti hann í strídi vid Filistea; þá lagdi Elhanan sonur Jairs, Laemi bródur Golíats Gitíta ad velli, og var spjótskaft hans sem vefjarrifur; 6. enn aptur var stríd í Gat, og þar var stærdar madur, hvørs fíngur (á hvørri hendi) 6, og tær (á hvørjum fæti) 6, voru (til samans) 24; hann var einnig sonur Rafa. 7. Hann gjørdi gis ad Israelítum, en Jónatan sonur Símea bródur Davíds vann á honum. 8. Þessir voru synir Rafa í Gat, og þeir féllu fyrir hendi Davíds og fyrir hendi þjóna hans.

## 22. Kapítuli.

Fólkstal. Drepsótt.

1. Og Satan mótstód Israel og egndi Davíd til! ad telja Israel. 2. Og Davíd sagdi vid Jóab og høfudsmenn fólksins: farid og teljid Israel frá Berseba og allt til Dan, og færid mér (talid) svo ad eg viti, tølu þeirra. 3. Jóab svaradi: Drottinn auki vid fólk sitt, eins og þad nú er (margt) hundrad sinnum, eru þeir ekki, minn herra Kóngur! allir míns Herra þjónar? til hvørs lætur minn Herra spyrja um þetta? hví vill hann vera Israel til sakfellis? 4. Og ord Kóngsins mátti meir enn Jóabs; og Jóab gékk út, fór um allann Israel, og kom til Jerúsalem, 5. og Jóab fékk Davíd manntal fólksins, og allur Israel var þúsund þúsunda og hundrad þúsund vopnfærra manna, og Júda fjøgur hundrud og sjøtíu þúsund vopnfærra manna; 6. en Leví og Benjamín taldi hann ekki med þessum, þvíad Jóab hafdi óbeit á skipun Kóngsins. 7. En þetta verk míslíkadi Drottni, og hann sló Israel. 8. Og Davíd sagdi til Guds: eg hefi þúnglega syndgad og eg gjørdi þetta, en tak nú burt, eg bid, misgjørníng þíns þjóns, því eg hefi breitt harla fávíslega. 9. Og Drottinn taladi vid Gad, Davíds sjáanda, og sagdi: 10. far þú, tala vid Davíd, og seg: svo segir Drottinn: þrennt legg eg fyrir þig, kjós þú eitt af því, ad eg láti þad koma yfir þig. 11. Og Gad kom til Davíds og sagdi honum: svo segir Drottinn: kjós þér! 12. annadhvørt þriggja ára hallæri, eda þú flýir 3 mánudi fyrir fjandmønnum þínum, og fyrir reiddu sverdi óvina þinna, ellegar í 3 daga sverd Drottins og drepsótt í landinu, og Eingil Drottins eydileggjandi í øllum Israels landamerkjum. Gjættu nú ad hvørju eg á ad svara þeim sem mig sendi. 13. Davíd sagdi til Gad: mjøg þreyngumst eg, en samt vil eg feginn falla í hønd Drottins, þvíad miskun hans er mikil, en í

V. 2. 2 Sam. 12, 30. V. 3. 2 Sam. 12, 31. V. 4. *a.* 2 Sam. 21, 18. *b.* Dóm. 3, 30. 8, 28. 11, 33. 1 Sam. 7, 13. V. 5. 2 Sam. 21, 19. V. 6. 2 Sam. 21, 20. V. 1. 2 Sam. 24. 1.

manna hendur vil ekki falla í. 14. Þá lét Drottinn drepsótt koma í Israel, og þar féllu af Israel 70 þúsundir manna. 15. Og Drottinn sendi Eingilinn til Jerúsalem til ad slá hana; og sem hann sló hana, sá Drottinn þad, og hann ydradist hins ílla, og mælti til Eingilsins: nóg (er adgjørt)! taktu nú ad þér høndina. En Eingill Drottins stód hjá hlødu Arnans Jebúsíta. 16. Og Davíd hóf upp sín augu, og sá Eingilinn standa milli himins og jardar, med riktu sverdi í hendi, útrétt yfir Jerúsalem. Þá féll Davíd og þeir eldstu á sín andlit, klæddir sekkjum. 17. Og Davíd sagdi vid Gud: hefi eg ei skipad ad telja fólkid? Eg em sá er syndgadi og breytti illa; en hvad hafa þessir saudir gjørt? Drottinn minn Gud, þín hønd komi yfir mig og yfir hús míns fødurs, en ekki yfir mitt fólk, ad plága þad!

18. En Eingill Drottins sagdi Gad, ad segja Davíd ad hann skyldi reisa Drottni altari á hløðugólfi Arnans, Jebúsíta. 19. Og Davíd fór eptir ordi Gads, er hann hafdi talad í nafni Drottins. 20. En sem Arnan snéri sér vid og sá Eingilinn, og hans fjórir synir med honum, svo fólu þeir sig; en Arnan var einmidt ad þreskja hveiti. 21. Og Davíd kom til Arnans; þá litadist Arnan um, og sá Davíd, og gékk útúr hlødunni og laut Davíd med sínu andliti til jardar. 22. Og Davíd mælti til Arnans: géf þú mér hlødu stædid! svo eg byggi þar Drottni altari; láttu mig fá þad fyrir fullt verd, svo plágunni verdi bægt frá fólkinu. 23. Og Arnan sagdi til Davíds: tak þú hana, og minn herra Konúngur gjøri hvad honum gott þikir; sjá! eg géf nautin til brennifórnar og þreski sledann til eldividar og hveitid til matoffurs; allt þetta géf eg. 24. Og Davíd Konúngur sagdi til Arnans: nei! eg vil heldur kaupa þetta fyrir fullt verd, því ekki vil eg fórnfæra Drottni því, sem þitt er, eda offra brennifórn kostnadarlaust. 25. Og svo gaf Davíd Arnan fyrir plátsid, sikil gulls, ad vigt 6 hundrud. 26. Og Davíd bygdi þar Drottni altari, og frambar brennifórn og þakkarfórn og ákalladi Drottinn, og hann heyrdi hann med eldi af himni á brennifórnar altarinu. 27. Og Drottinn baud Englinum, þá stakk hann sínu sverdi í þess slídrur. 28. Á sama tíma, þegar Davíd sá ad Drottinn hafdi bænheyrt hann í hlødu Arnans Jebúsíta, þá færdi hann þar fórnir. 29. En búistadur (tjaldbúd) Drottins sem Móses hafdi gjørt í eydimørkinni, og brennifórnar altarid var um þad leiti á Gíbeons hæd. 30. En Davíd gat ekki geingid fyrir hana, til ad leita Guds, því hann var hræddur vid sverd Drottins Eingils. 23. Kap. 1. Og Davíd mælti: hér skal hús Guds Drottins standa, og hér altarid til Israels brennifórna.

## 23. Kapítuli.

Davíds rádagjørd ad byggja musteri.

2. Og Davíd skipadi ad samansafna útlendíngum í Israels landi, og tilsetti steinhøggvara, til ad høggva steina til Guds húss byggíngar. 3. Og Davíd hafdi dregid ad mikid járn í nagla til vængja hurdanna og til ad negla med, og mikid af eiri, svo ei vard vegid, 4. og Sedrus vid, svo ei vard tølu á komid, því þeir í Týrus og Sídon høfdu fært Davíd mikinn Sedrus vid. 5. Því Davíd hugsadi: sonur minn Salómon er vanmáttugt barn, og hús skal Drottni byggja, sem á ad vera ákaflega stórt, til frægdar og ágjætis í øllum løndum; því vil eg afla honum fánga. Og svo afladi Davíd mikilla fánga ádur enn hann dó.

6. Og hann kalladi Salómon sínn son, og baud honum ad byggja Drottni, Israels Gudi, hús. 7. Og Davíd mælti til Salómons: sonur minn, eg hafdi í hyggju ad byggja hús nafni Drottins, míns Guds. 8. En ord Drott-

ins kom til mín og sagdi: miklu blódi hefir þú úthellt, og miklar orustur hefir þú hád; þú skalt ekki byggja hús mínu nafni, því ærna blódi hefir þú úthellt á jørdina fyrir mér. 9. Sjá! sonur mun þér fædast, hann mun verda kyrrlátur madur, og eg mun láta hann hafa ró fyrir øllum sínum óvinum allt um kríng; því Salómon (fridgódi) skal hann heita, og medan hann lifir vil eg leida frid og ró yfir Israel. 10. Sá hinn sami skal byggja hús mínu nafni, og hann skal vera mér sonur og eg honum fadir, og eg vil festa hásæti hans Konúngdóms yfir Israel ad eilífu. 11. Nú, minn son, Drottinn sé med þér, ad þér takist þad, og ad þú byggir hús Drottins þíns Guds, eins og hann hefir um þig talad. 12. Drottinn gefi þér vísdóm og skilníng og láti þig ríkja yfir Israel, og halda løgmál Drottins þíns Guds. 13. Þá muntu verda lukkulegur, þegar þú gjætir þess ad gjøra eptir setníngum og réttindum þeim sem Drottinn baud Móses, handa Israel. Vertu fastur fyrir og sterkur, óttast ekki, vertu ei huglaus! 14. sjá! í øllu mínu basli hefi eg dregid ad gull til Drottins húss, hundrad þúsund vættir, og silfur, þúsundsinnum þúsund vættir, og eirid og járnid verdur ekki vegid; því mikid er af því, og vida og steina hefi eg aflad; þar máttu ennú vid auka. 15. Og hjá þér eru margir verkamenn, steinhøggvarar, og þeir sem géta unnid ad tré og steinum, og menn sem hafa hagleik til allskonar verka. 16. Gullid og silfrid og eirid og járnid verdur ei talid. Tak þú þig til og framkvæm þú þad! og Drottinn sé med þér!

17. Og Davíd baud øllum Israels høfdíngjum ad styrkja son sinn Salómon. 18. „Er ekki Drottinn ydar Gud med ydur og hefir hann ei géfid ydur frid á allar hlidar? því hann hefir géfid í mína hønd landsins innbúa, og landid er unnid undir Drottinn og hans fólk. 19. Og snúid nú ydar hjørtum og sálum til þess, ad leita Drottins ydar Guds; og takid ydur til, og byggid helgidóm Drottins Guds, ad þér gétid flutt þángad sáttmáls ørk Drottins og þau helgu áhøld Guds, í þad hús, sem er byggt nafninu Drottins".

## 24. Kapítuli.

*Tala Levítanna og þeirra embætti.*

1. Og sem Davíd var ordinn gamall og saddur lífdaga, gjørdi hann son sinn Salómon ad Kóngi yfir Israel. 2. Og hann samansafnadi øllum yfirmønnum Israels og prestunum og Levítunum. 3. Og Levítarnir voru taldir, þrítugir og eldri, og þeirra tala var, høfud fyrir høfud, karlmenn, 38 þúsundir. 4. „Af þessum séu settir (sagdi hann) fyrir verk Drottins húss 24 þúsundir, og forstødumenn og dómarar 6 þúsundir; 5. og 4 þúsund dyraverdir og 4 þúsund, sem sýngi Drottni lof med hljódfærum, er eg hefi gjørt til ad sýngja lof". 6. Og Davíd skifti þeim í flokka eptir Leví sonum: Gerson, Kahat og Merari. 7. Gersonítar voru Laedan og Símei. 8. Synir Laedans: sá fyrsti Jehiel og Setam og Jóel, þeir þrír. 9. Synir Símei: Salomit og Hasíel og Haran, þeir þrír. Þessir voru ættahøfdíngjar (af kyni) Laedans. 10. Og synir Símei: Jahat, Sína og Jeus og Bria; þad eru synir Símei, þeir fjórir. 11. Og Jahat var sá fyrsti, og Sína sá annar; og Jeus og Bría áttu ekki mørg børn, og svo voru þeir reiknadir ein ætt.

12. Synir Kahats: Amram, Jesehar, Hebron og Usíel, þeir fjórir. 13. Synir Amrams: Aron og Móses. Og Aron var fráskilinn, til ad helga hann, sem háheilagann, hann og hans synir æfinlega, ad gjøra reyk fyrir Drottni, til ad þjóna honum og blessa í hans nafni eilíflega. 14. Og synir Móses þess gudsmanns, voru nefndir eptir Leví ættkvísl. 15. Synir

Móses: Gersom og Elieser. 16. Synir Gersoms: Sebúel, sá fyrsti. 17. Og synir Elíesers voru: Rehabia sá fyrsti; og Elíeser átti einga adra syni; en synir Rehabia voru mjøg margir. 18. Synir Jesehars: Salómit sá fyrsti. 19. Synir Hebrons: Jerja, sá fyrsti, Amarja, sá annar, Jehasíel, sá þridji, og Jekamam, sá fjórdi. 20. Synir Usíels: Míka, sá fyrsti, og Jissía, sá annar.

21. Synir Merarí: Mahelí og Músí; synir Mahelí: Eleasar og Kis. 22. Og Eleasar dó, og átti einga syni, heldur dætur, og synir Kis, þeirra brædur, tóku þær. 23. Synir Musa: Mahelí og Eder og Jeremót, þeir þrír.

24. Þetta eru synir Leví, eptir þeirra ættlidum og ættfedrum, eins og þeir voru kannadir, eptir tølu nafnanna, høfud fyrir høfud, sem gégndu þjónustugjørdinni í Drottins húsi, frá*) tvítugs aldri og þar yfir; 25. því Davíd sagdi: Drottinn, Gud Israels, hefir géfid sínu fólki hvíld, og hann býr ad eilífu í Jerúsalem; 26. svo þurfa Levítarnir ekki leingur ad bera tjaldbúdina, med øllum hennar embættis verkfærum. 27. Því eptir seinustu skipun Davíds, voru Levi synir taldir, tvítugir og eldri. 28. Því þeirra embætti var (ad gégna), vid hønd Arons sona, þjónustu Drottins húss; (og umsjón) yfir forgardinum og yfir stúkunum, og hreinsun alls þess heilaga, og þjónustu sýslan Guds húss. 29. Og (annast um) skodunar braudin og hveiti mjølid og matoffrid og þær ósýrdu køkur og pønnurnar, og þad steikta, og allann mælir og mál, 30. og þeir skyldu standa morgun eptir morgun (reidubúnir) til ad þakka Drottni og lofa hann, og eins á kvøldin, 31. og færa Drottni allar brennifórnir á hvíldar døgum, túnglkomudøgum og hátídum, eptir tølu, eptir nidurskipun, stoduglega fyrir Drottni. 32. Og þad sem þeir skyldu sýsla þad skyldi gjørast frammi fyrir samkundutjaldbúdinni, og vid helgidóminn, og fyrir Arons syni, þeirra brædur, vidvíkjandi Drottins húss þjónustu.

## 25. Kapítuli.

Um Prestana og þeirra embætti.

1. Vidvíkjandi sonum Arons, þá var þannig skipt. Synir Arons vóru: Nadab og Abíhú Eleasar og Itamar. 2. Og Nadab og Abíhú dóu á undan fødur sínum, og áttu einga syni, og Eleasar og Itamar urdu prestar. 3. Og Davíd skipadi þeim nidur og Sadok af sonum Eleasars, og Ahímelek, af sonum Itamars, eptir þeirra embætti, til þeirra þjónustu. 4. Og af sonum Eleasars voru fleiri høfudsmenn enn af sonum Itamars, og þeir skipudu þeim nidur; af sonum Eleasars, vóru 16 ættfednr ættlidanna, og af sonum Itamars eptir þeirra ættlidum átta. 5. Og þeir tiltóku þá med hlutfalli, þessa sem hina; því forstødu menn helgidómsins, og Gudshøfdíngjar voru af sonum Eleasars og af sonum Itamars. 6. Og Semaja sonur Netaneels af Leví (ætt) skrifarinn, skrifadi þá upp fyrir Konúnginn og høfdíngjana og prestinn Sadok og Ahímelek son Abíatars, og fyrir ættfedur prestanna og Levítanna; hvør ein høfud ætt var (med hlutfalli) dregin fyrir Eleasar, og hvørein sømuleidis fyrir Itamar. 7. Þad fyrsta hlutfall kom fyrir Jójarib; þad annad fyrir Jedaja; 8. þad þridja fyrir Harim; þad fjórda fyrir Seórim. 9. Þad fimta fyrir Malkýa; þad sjøtta fyrir Mejamin; 10. þad sjøunda fyrir Hakos; þad áttunda fyrir Abía; 11. þad níunda fyrir Jesúa; þad tíunda fyrir Sekanja; 12. þad ellefta fyrir Eliasib; þad tólfta fyrir Jakim; 13. þad þrettánda fyrir Húpa; þad fjórtánda fyrir Jesebeab; 14. þad

*) Sumir ætla hér ætti ad standa: þritugs aldri. V. 29. Mælir: þá mælt er hid vota; mál: leingd eda breidd.

fimtánda fyrir Bilga; það sextánda fyrir Immer; 15. það seytjánda fyrir Hesír; það átjánda fyrir Hapises; 16. það nítjánda fyrir Pethaja; það tuttugasta fyrir Jeheskel; 17. það tuttugasta og fyrsta fyrir Jakin; það tuttugasta og annað fyrir Gamúl; 18. það tuttugasta og þriðja fyrir Delaja; það tuttugasta og fjórða fyrir Maasía. 19. Þessi var þeirra niðurskipan til þeirra þjónustu, að koma í Drottins hús eptir þeirra niðurrøðun (sem var ákværðuð) af Aron þeirra føður, eins og Drottinn, Ísraels Guð, hafði boðið honum.

20. Og viðvíkjandi øðrum Leví sonum: (voru) af Amrams sonum: Subael; af sonum Subaels: Jedea; 21. af Rehabja, af sonum Rehabja: Jisšia sá fyrsti; 22. af Jesehar-ítum; Salomot; af sonum Salomots: Jahat. 23. Og synir (Hebrons) voru: Jeria (23, 19.) (hinn fyrsti), Amaria sá annar, Jahesíel sá þriðji, Jekamam sá fjórði; 24. synir Usíels, Mika; af sonum Mika: Samir; 25. bróðir Mika: Jisšia; af sonum Jisšia: Sakaria; 26. Synir Merarí: Maheli og Musí; synir Jaesía, hans sonar; 27. synir Merarí af Jaesía hans syni: Soham og Súkúr og Ibri; 28. Af Mahelí: Eleasar, sem átti einga syni; 29. af Kís, Kís synir: Jerhameel; 30. og þeir synir Musí: Mahelí og Eder og Jerímót. Þetta voru synir Levítanna, eptir þeirra ættfeðrum. 31. Og sømuleiðis køstuðu þeir hlutfalli, eins og þeirra bræður, Arons synir, í augsýn Davíðs Konúngs og Sadoks og Ahimeleks og ættahøfðingja prestanna og Levítanna; sá ypparsti í ættinni eins og hans minnsti bróðir.

## 26. Kapítuli.

*Niðurskipun saungvaranna við helgidóminn.*

1. Og Davíð og herforíngjarnir fráskildu til þjónustunnar af sonum Asafs og Hemans og Jedutúns, þá sem léku á hljóðpípur og hørpur og horn; og þetta var tala þeirra sem sýslan høfðu við þeirra þjónustu: 2. af sonum Asafs: Sakúr og Jósep og Netania og Asarela, synir Asafs, Asaf við hønd, undir Kóngsins stjórn (leiðsøgn). 3. Af Jedutún, synir Jedutuns: Gedalia og Seri og Jesaja, Hasabía og Matitia, (og Símeí) þeir sex, undir (leiðsøgn) stjórn føður síns Jedutúns, sem með hljóðpípum spilaði Drottni þakklæti og lof; 4. Af Heman, synir Hemans: Búkia og Matania, Usíel, Sebuel og Jerimot, Hanania, Hanani, Eliata, Gidalti og Romamti-Eser, Josbekasa, Malloti, Hótír, Mahesíot, 5. allir synir Hemans, Kóngsins sjáanda, sem vegsamaði með Drottins orði; og Guð gaf Heman 14 syni og þrjár dætur. 6. Allir þessir voru undir stjórn sinna feðra við saung í Drottins húsi, með hornum, hørpum og hljóðpípum, til Guðs húss þjónustu; undir Kóngsins stjórn (voru) þeir Asaf, Jedutún og Heman. 7. Og þeirra tala, að bræðrum þeirra meðtøldum, þeim æfðu í Drottins saung, øllum sem kunnu, var 288. 8. Og þeir køstuðu hlutfalli um embætti, sá minnsti sem sá mesti, sá lærði, sem lærisveinninn. 9. Og það fyrsta hlutfall kom (fyrir) handa Asaf, nl. Jósep hans (syni). Gedalia hið annað, honum og hans bræðrum og syni, (og þeir voru) tólf: 10. hið þriðja handa Sakur, hans syni og bræðrum, tólf. 11. Hið fjórða handa Jsri (Serí), hans syni og bræðrum, tólf; 12. það fimta handa Netania, hans syni og bræðrum tólf. 13. það sjøtta handa Bukia, hans syni og bræðrum tólf. 14. Það sjøunda handa Jesarela (Asarela) hans syni og bræðrum tólf; 15. það áttunda handa Jesaja, hans syni og bræðrum tólf; 16. það níunda handa Matanía, hans syni og bræðrum tólf; 17. það tíunda handa Símeí, hans syni og bræðrum tólf; 18. það ellefta handa Asareel (Usíel) hans syni og bræðr-

um tólf; 19. það 12ta handa Hasabja hans syni og brædrum tólf; 20. það þrettánda handa Subael (Sebuel) hans syni og brædrum tólf; 21. Það fjórtánda handa Matitia, hans syni og brædrum tólf; 22. það fimtánda handa Jeremot, hans syni og brædrum tólf; 23. það sextánda handa Hanania, hans syni og brædrum tólf; 24. það seytjánda handa Jesbekasa, hans syni og brædrum tólf; 25. það átjánda handa Hananí, hans syni og brædrum tólf; 26. það nítjánda handa Malloti, hans syni og brædrum tólf; 27. það tuttugasta handa Elíata, hans syni og brædrum tólf; 28. það tuttugasta og fyrsta handa Hótír, hans syni og brædrum tólf; 29. það tuttugasta og annað handa Gídalti, hans syni og brædrum tólf; 30. hið tuttugasta og þriðja handa Mahesíot, hans syni og brædrum tólf; 31. það tuttugasta og fjórða handa Romamti-Eser, hans syni og brædrum tólf.

## 27. Kapítuli.

Dyraverdir, féhirdar og dómarar.

1. Viðvíkjandi niðurskipan dyravørdslu mannanna; (voru) af Koratítum: Meselemía, sonur Kóre, af sonum Asafs; 2. og synir Meselemia: Sakaríás sá frumgétni, Jediael, sá annar, Sebadia, sá þriðji, Jatniel sá fjórði, 3. Elam, sá fimti, Johanan, sá sjøtti, Elioenai sá sjøundi; 4. Og Obed-Edoms synir: Semaia sá frumgétni, Josabad, sá annar, Jóa, sá þriðji, og Sakar sá fjórði, og Netaneel, sá fimti, 5. Ammiel, sá sjøtti, Jsaskar, sá sjøundi, Pegultai, sá átundi; því Guð hafði blessað hann. 6. Og Semaja, syni hans, fæddust og synir, høfuðsmenn í þeirra fedra húsi, því þeir voru duglegir menn; 7. synir Semaja: Otni og Refael og Obed, Elsabad, hans bróðir, duglegir menn, Elihu og Semakia. 8. Allir þessir voru af sonum Obed-Edoms, þeir og þeirra synir og brædur duglegir og røskir menn til þjónustunnar, sextíu og tveir af Obed-Edom. 9. Og synir Meselemia og brædur, duglegir menn, voru átján. 10. Og Hosa synir, af sonum Merari, voru: Simri sá fyrsti, (frumgétinn var hann ekki, en faðir hans setti hann ættar-høfuð), 11. Hilkia, sá annar, Tebalía, sá þriðji, Sakaría, sá fjórði; allir synir og brædur af Hósa voru þrettán.

12. Þessum hlotnaðist að skiptast til með dyravørdsluna, eptir (høfdum) høfda tølu mannanna, vøktun hjá þeirra brædrum, meðan þeir þjónuðu í Drottins húsi; 13. og køstuðu hlut, sá minnsti sem sá mesti, eptir þeirra ættliðum, fyrir sérhvørjar dyr. 14. Austur dyrnar hlotnuðust Selemia (Meselemia); og Sakaría syni hans, hyggnum ráðgjafa, køstuðu þeir hlut, og hans hlutur féll mót norðri; 15. og Obed-Edom mót suðri, og sonum hans hjá féhirdslu húsinu. 16. Súpim og Hósa mót vestri, við dyrnar Saleket, hvar strætið beigist uppávið, vakt hjá vakt. 17. Austan til (héldu vørð) 6 Levítar, að norðan til daglega fjórir, að sunnan til daglega fjórir, og hjá féhirdslu húsinu tveir og tveir, 18. gagnvart forstaðnum að vestan til, fjórir á strætinu, tveir og tveir gégnt forstaðnum. 19. Þannig var dyravørdslumønnum niðurskipað af Koraíta og Meraríta sonum.

20. Og af Levítum var Ahía yfir fjársjóðum Guðs húss, og yfir fjársjóðum þeirra helguðu hluta. 21. Synir Laedans, af sonum Gersoníta, af Laedan, ætta høfuð Laedans ættliðs, af Gersonítum, (voru) Jehieli, 22. synir Jehiels, Setam og Jóel hans bróðir, voru yfir fjársjóðum Drottins húss. 23. Af Amranítum, Jeseharítum, Hebronítum, Asíelítum. 24. Og Sebúel sonur Gersoms, Mósissonar, var yfir-umsjónarmaður fjársjóðanna. 25. Og hans brædur af Elíeser: hvørs son Rehabía (var),

og hvørs son Jesaía, og hvørs son Jóram, og hvørs son Sikrí, og hvørs son Salómit; 26. sá sami Salómit, og hans brædur, var yfir fjársjódum þeirra helgudu hluta sem Davíd Konúngur og ætta høfudin', og høfudsmennirnir yfir þúsund og hundrad (manns) og foríngjar hersins høfdu helgad; 27. úr strídum, og af herfángi høfdu þeir þad helgad, til ad endurbæta (þarmed) Drottins hús; 28. og allt sem Samúel, sá Sjáandi, hafdi helgad, og Sál, sonur Kis, og Abner sonur Ners, og Jóab, sonur Serúju, allt þad helgada var undir hendi Salómits og hans brædra. 29. Af Jeseharítum var Kenanía og hans synir yfir Israel, vidvíkjandi þeim ytri sýslunum, sem forstødumenn og dómarar. 30. Af Hebronítum var Hasabía og hans brædur, dugandis menn, þúsund og 7 hundrud, settir yfir Israel, þessumegin Jórdanar, ad vestanverdu, til allsháttadrar Drottins þjónustu og til Kóngsins þjónustu. 31. Af Hebronítum var Jería, sá ypparsti í Hebroníta ætt og þeirra fedra húsum. Á því fertugasta ári Davíds ríkisstjórnar voru þeir ransakadir, og duglegir menn medal þeirra fundnir, í Jaeser í Gílead. 32. Og hans brædur, duglegir menn, voru 2 þúsund og 7 hundrud, allir ættfedur. Og Davíd Konúngur, setti þá yfir Rúbenítana og Gadítana og þá hálfu Manassis ætt, vidvíkjandi øllum Guds og Kóngsins erendum.

## 28. Kapítuli.

Nidurskipun hersins; ættahøfdíngjar; embættismenn.

1. Þessir eru Israelssynir eptir þeirra tølu, ættfedur og høfdíngjar yfir þúsund og hundrad (manns) og þeirra forstødumenn, sem þjónudu Konúnginum, eptir allsháttar nidurskipun, þá adrir komu og adrir fóru, mánud fyrir mánud, alla mánudi ársins, hvør einn flokkur 24 þúsundir. 2. Yfir þeim fyrsta flokki þess fyrsta mánadar var Jasobeam, sonur Sabdíels, og í hans flokki voru 24 þúsund. 3. Hann var af sonum Peres, høfdíngi yfir øllum herforíngjum í fyrsta mánudi. 4. Og yfir flokki þess annars mánadar var Dodaí, Ahohiti, og af hans flokki var Miklot foríngi (hinum næstur) og í hans flokki voru 24 þúsund. 5. Foríngi þridja hersins, í þridja mánudi, var Benaja, sonur Jójada prests, høfdíngi, og í hans flokki voru 24 þúsund; 6. sá sami Benaja var hetja medal þeirra þrjátíu, og yfir þeim þrjátíu, og (foríngi var) fyrir hans flokki Ammisabad hans son. 7. Sá fjórdi í fjórda mánudi var Asahel, bródir Jóabs, og Sebúdía, hans son, næstur honum, og í hans flokki voru 24 þúsund. 8. Sá fimti í fimta mánudi var Samehút, Jesrahiti, og í hans flokki voru 24 þúsund. 9. Sá sjøtti í sjøtta mánudi var Ira, sonur Ike Tekóita, og í hans flokki voru 24 þúsund. 10. Sá sjøundi í sjøunda mánudi var Heles, Peloníti, af sonum Efrahims, og í hans flokki voru 24 þúsund. 11. Sá áttundi í áttunda mánudi var Sibekai, Húsatíti, af Sarehítum, og í hans flokki voru 24 þúsund. 12. Sá níundi, í níunda mánudi, var Abíeser, Antótíti, af Benjamínítum, og í hans flokki voru 24 þúsund. 13. Sá tíundi í tíunda mánudi, var Meharaí, Netófatíti, af Serahítum og í hans flokki voru 24 þúsund. 14. Sá ellefti í ellefta mánudi var Benaja, Piratoníti, af sonum Efrahims, og í hans flokki voru 24 þúsund. 15. Sá tólfti í tólfta mánudi var Heldai, Netófatíti, af Otníels (ætt), og í hans flokki voru 24 þúsund.

16. Og yfir Israels ættkvíslum voru: yfir Rúbenítum var høfdíngi Elíeser, sonur Sikri; yfir Símeonítum Sefatía, sonur Maaka; 17. yfir Levítunum Hasabía, sonur Kemúels; yfir ætt Arons, Sadok; 18. yfir Júda, Elíhu, af brædrum Davíds; yfir Issaskar, Omri, sonur

Mikaels; 19. yfir Sebúlon, Jesmaja, sonur Obadía; yfir Naftali, Jerímot, sonur Asríels; 20. yfir sonum Efrahims Hósea, sonur Asasía; yfir þeirri hálfu Manasße ættkvísl Jóel, sonur Pedaja: 21. yfir þeirri hálfu Manasße ættkvísl í Gílead Iddo, sonur Sakaría; yfir Benjamín Jaesíel, sonur Abners; 22. yfir Dan Asarel, sonur Jórams. Þessir eru høfdíngjar Israels ættkvísla.

23. Og Davíd hafdi ekki látid telja þá sem voru tvítugir og ýngri; því Drottinn hafdi heitid ad margfalda Israel sem stjørnur himinsins. 24. Jóab, sonur Serúju, hafdi byrjad ad telja, en ekki lokid vid, og af því kom reidi yfir Israel, og talan var ekki tekin inní reikníng søgunnar, um Davíds Kóngs tídir.

25. Og yfir fjársjódum Kóngsins var Asmavet, sonur Adiels, og yfir eigunum á landinu, í stødunum og þorpunum og í kastølunum var Jónatan, sonur Usía. 26. Og yfir akurvinnnmønnunum vid yrkíngu landsins, var Efri, sonur Kelúbs. 27. Og yfir víngørdunum var Símeí, Ramatíti, og yfir vínfordanum í víngørdunum var Sabdi, Sifmíti. 28. Yfir vidsmjørsvidargørdunum, og mórberja trjánum á láglendinu var Baal-Hanan, Gaderíti, og yfir vidsmjørsfordanum, Jóas. 29. Og yfir nautfénadinum, sem gékk á Saron, var Sitrai, Saroníti, og yfir nautunum í dølunum Safat, sonur Adlaí. 30. Og yfir úlføldunum Obil, Ismaelíti, og yfir øsnunum Jehedía, Meronótíti. 31. Og yfir smáfénadinum var Jasis, Hagaríti. Allir þessir høfdu eigur Davíds Kóngs med ad fara.

32. Og Jónatan, fødur bródur Davíds, var rádgjafi, hygginn og lærdur madur; og Jehíel, sonur Hakmoní, var hjá sonum Kóngsins. 33. Og Akitófel var Kóngsins rádgjafi; og Húsaí, Arakíti, var vinur Kóngsins; 34. og eptir Akitófel voru: Benaja, sonur Jójada, og Abíatar (Kóngsins rádgjafar); og hershøfdíngi Kóngsins var Jóab.

## 29. Kapítuli.

Rádstafanir Davíds.

1. Og Davíd samansafnadi til Jerúsalem øllum høfdíngjum Israels, høfdíngjum ættanna, og høfdíngjum herflokka þeirra sem þjónudu Kónginum, og høfdíngjum yfir þúsund manns og høfdíngjum yfir hundrad manns, og høfdíngjum yfir allri eign og hjørdum Kóngsins og sonum sínum, hirdmønnum og hetjum og øllum bestu mønnum. 2. Og Davíd Konúngur stód upp og mælti: „heyrid mig mínir brædur og mitt fólk! Eg hafdi í huga ad byggja hvíldarstadar hús fyrir sáttmáls ørk Guds, og fótskør vors Guds, og gjørt mig reidubúinn ad byggja; 3. enn, Gud sagdi vid mig: þú skalt ekki byggja hús mínu nafni, því strídsmadur ert þú, og hefir úthellt blódi. 4. Og Drottinn, Israels Gud, útvaldi mig af øllu húsi fødur míns, ad eg skyldi vera Kóngur yfir Israel ad eilífu; því Júda hefir hann útvalid til høfdíngjadæmis, og í Júda húsi er hús míns fødurs, og medal sona fødur míns hefir hann haft á mér velþókknan, ad gjøra mig ad Kóngi yfir allann Israel; 5. Og af øllum mínum sonum (því marga syni hefir Drottinn géfid mér) útvaldi hann Salómon, son minn, til ad sitja í hásæti Drottins Kóngsríkis yfir Israel. 6. Og hann sagdi vid mig: Salómon þinn son, einmidt hann skal byggja mitt hús og minn forgard; því eg hefi kosid mér hann fyrir son, og eg vil vera hans fadir. 7. Og eg vil eilíflega stadfesta hans Konúngdóm, ef hann er fastur á því ad halda mín bodord og réttindi, sem hann nú (gjørir). 8. Og nú fyrir augum alls Israels, Drottins safnadar, og fyrir

V. 32. Hygginn og lærdur; adrir: vitur Cancelleri eda skrifari.

eyrum vors Guds, (áminni eg ydur) haldid, og leitid allra bodorda Drottins ydar Guds, svo þér megid eiga þad góda land, og láta þad gánga eilíflega í erfd til ydar sona. 9. Og þú minn son, Salómon, þekktu Gud fødur þíns, og þjóna þú honum med einlægu hjarta og med viljugri sálu; því Drottinn ransakar øll hjørtu, og þekkir allar hugsananna smídar. Ef þú leitar hans, svo lætur hann þig finna sig; en ef þú yfirgéfur hann svo mun hann útskúfa þér algjørlega. 10. Sjá nú, þared Drottinn hefir kosid þig til ad byggja hús fyrir helgidóminn, þá vertu stadfastur, og framkvæmdu þad.

11. Og Davíd gaf Salómon syni sínum fyrirmynd forstofunnar og hans húsa, og féhyrdsluhúsanna og hans loptsala, og hans innri herbergja og sáttmáls arkar húsins, 12. fyrirmynd alls þess sem var í hans anda, vidvíkjandi forgardi Drottins húss og øllum stúkunum umhverfis, fjárhyrdslum Guds húss, og fjárhyrdslum þeirra helgudu hluta, 13. og vidvíkjandi nidurskipun prestanna og Levítanna og øllum størfum þjónustunnar í Drottins húsi, og øllum áhøldum þjónustunnar í Drottins húsi. 14. og vidvíkjandi því gulllega, eptir vigt gullsins, øllum verkfærum sérhvørrar þjónustu, øllum silfur tólum eptir vigt, øllum verkfærum sérhvørrar þjónustu, 15. (vidvíkjandi) vigt þeirra gulllegu ljósa hjálma og gulllegu lampa, eptir þýngd sérhvørs ljósahjálms og hans lampa, og silfur ljósastjøkunum, eptir þýngd sérhvørs ljósastjaka og hans lampa, eptir brúkun hvørs eins ljósastjaka. 16. Og gullinu eptir vigt til skodunarbrauda bordanna, til sérhvørs bords, og silfrinu til silfurbordanna, 17. og (fyrirmynd) sodkrókanna og skálanna og kannanna af skíru gulli og gullbikaranna eptir vigt sérhvørs bikars, og silfurbikaranna eptir vigt sérhvørs bikars. 18. Og reykaltarisins af hreinsudu gulli eptir vigtinni, og fyrirmynd vagnsins þess gulllega Kérúbs, sem útþanin þekur sáttmálsørk Drottins. 19. „Þetta allt (mælti Davíd) er í rit fært af Drottins hønd, sem mig hefir frædt um øll verk fyrirmyndarinnar; 20. Og Davíd sagdi vid Salómon sinn son: vertu fastur og sterkur og framkvæm þú þad, vertu óhræddur og ódeigur, því Gud Drottinn, minn Gud er med þér, hann mun ei taka høndina frá þér, né yfirgéfa þig, þángad til fullgjørd eru øll verk til þjónustu Drottins húss. 21. Og sjá! hér eru flokkar prestanna og Levítanna til allrar þjónustu Guds húss; og þú hefir hjá þér til allra starfa allsháttar reidubúna (menn) sem kunna til allra verka, og høfdíngjana og allt fólkid til þinna naudsynja.

## 30. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og Davíd Kóngungur mælti til alls safnadarins: Salómon sonur minn, sá eini, sem Gud hefir kosid sér, er óþroskadur únglíngur, en verkid er mikid, því ei skal byggja høll þessa fyrir menn, heldur fyrir Gud Drottinn. 2. En eg hefi af øllu megni aflad fánga til míns Guds húss, gulls til þess sem skal vera úr gulli, silfur til þess sem á ad vera úr silfri, eirs til þess sem á ad vera úr eiri, járns til þess sem vera skal úr járni, trés til þess sem vera skal af tré, onyxsteina, og vígslusteina (2 Mós. 25, 7.) sundurgérdar steina og mislitra steina, og allslags dýrra steina, og margra marmara steina; 3. og enn nú, þar eg hefi velþóknan á húsi míns Guds, vil eg géfa mína eigu í gulli og silfri til míns Guds húss, auk þess sem eg hefi aflad til þess heilaga húss: 4. Þrjú þúsund vættir gulls og 7 þúsund vættir af hreinsudu silfri, til ad klæda med veggi hússins, 5. til alls sem á ad vera af gulli, og til alls sem vera á af silfri, til allra verka smíd-

anna. Og — hvør er nú fús ad koma fyrir Drottinn í dag med fulla hønd?

6. Og fúsir voru høfudsmenn ættlidanna og yfirmenn ættkvísla Israels, høfdíngjarnir yfir þúsund og yfir hundrad (manns) og høfdíngjarnir yfir Kóngsins erindum. 7. Og þeir gáfu til Guds-húss verksins gull, 5 þúsund vættir og 10 þúsund dareika, og silfur, 10 þúsund vættir, og eir 18 þúsund vættir, og járn 100 þúsund vættir. 8. Og hvør sem hafdi steina, hann gaf þá til fjársjóda Drottins húss, í hønd Jehíels, Gersoníta. 9. Og fólkid gladdist af þeim fúsu gjøfum; því med viljugum hjørtum gáfu þeir þær Drottni, og líka vard Davíd Konúngur mikid gladur.

10. Og Davíd vegsamadi Drottinn í áheyrn alls safnadarins og mælti: lofadur sért þú Drottinn, Gud Israels, vorra fedra, frá eilífd til eilífdar! 11. Þín er, Drottinn, hátignin, og maktin og dýrdin og algjørlegleikinn og heidurinn, já allt á himni og jørdu; þitt er Kóngsríkid, Drottinn, og þú ert hafinn yfir allt sem høfdíngi. 12. Audur og heidur (kémur) frá þínu augliti (frá þér) og þú drottnar yfir øllu, og í þinni hendi er krafturinn og valdid, og í þinni hønd stendur ad hefja allt og vidhalda øllu. 13. Og nú, vor Gud! þøkkum vér þér, og vegsømum nafn þinnar dýrdar! 14. Því hvad er eg, og hvad er mitt fólk, ad vér gátum géfid slíkar gjafir? Því frá þér kémur allt, og frá þinni hendi (er þad sem) vér høfum þér géfid. 15. Því framandi og géstir erum vér fyrir þér, eins og allir vorir fedur; sem skuggi eru vorir dagar á jørdunni, án vonar. 16. Drottinn, vor Gud! allar þessar nægtir, sem vér høfum ad dregid, til þess ad byggja þér hús fyrir þitt heilaga nafn, frá þinni hendi eru þær, og allt er þitt. 17. Og eg veit, minn Gud! ad þú prófar hjartad og elskar hreinskilni, med einlægu hjarta hefi eg allt þetta fúslega géfid og med gledi hefi eg séd, hvørsu þitt fólk sem hér er, hefir géfid þér viljuglega. 18. Drottinn! Gud Abrahams, Isaaks og Israels, vorra fedra, vardveit þú eilíflega slíkt sinni og hugsan í hjørtum þessa fólks, og snú þeirra hjørtum til þín! 19. Og géf syni mínum Salómon hlýdid hjarta ad halda þín bodord og þinn vitnisburd og þína setnínga, og ad gjøra allt og byggja þá høll, sem eg hefi undirbúid.

20. Og Davíd sagdi til alls safnadarins: vegsamid Drottinn, ydar Gud! og allur søfnudurinn vegsamadi Drottinn, Gud þeirra fedra, og þeir hneigdu sig og beigdu fyrir Drottni, og fyrir Konúnginum. 21. Og þeir færdu Drottni fórnir, og offrudu Drottni brennifórnum, ad ødrum morgni hins sama dags, þúsund nautum, þúsund hrútum, þúsund saudum, og drikkjarfórn ad auk, og ødrum mørgum fórnum fyrir allan Israel. 22. Og þeir átu og drukku fyrir Drottni þann sama dag í mikilli gledi, og gjørdu Salómon Davídsson, í annad sinn ad Kóngi og smurdu hann Drottni til høfdíngja, og Sadok til kénnimanns. 23. Og svo settist Salómon í hásæti Drottins, sem Kóngur í stad fødur síns Davíds og var lukkulegur, og allur Israel gékk til hlýdni vid hann.

24. Og allir yfirmenn og kapparnir og líka allir synir Davíds Kóngs, geingu á hønd Salómon Kóngi. 25. Og Drottinn gjørdi Salómon mjøg mikinn fyrir augum alls Israels, og gaf honum svo ágjætan Konúngdóm, ad einginn Konúngur yfir Israel á undan honum hafdi haft þvílíkann.

26. En Davíd, sonur Isaí, var Konúngur yfir øllum Israel. 27. Og hann ríkti yfir øllum Israel í 40 ár; í Hebron ríkti hann 7 ár, og í Jerúsalem ríkti hann 33 ár; 28. og hann andadist í gódri elli, saddur af lífdøgum,

V. 7. Dareika: persisk gull mynt, sem gildti litid yfir 7 rbdl.

aud og heidri, og Salómon hans son vard Kóngur í hans stad.

29. En saga Davíds Kóngs, sú fyrsta og seinasta, sjá! hún er skrifud í søgu Samúels, þess sjáanda, og í søgu Natans spámanns, og í søgu Gads, sjáandans, 30. ásamt allri hans ríkisstjórn og hans hreystiverkum, og þeim tímum sem yfir hann lidu og yfir Ísrael og yfir øll ríki landanna.

# PARALIPOMENON.

## Önnur Kroníku Bókin.

### 1. Kapítuli.

Draumur Salómons í Gíbeon. (1 Kgb. 3, 4—15). 10, 26—29.

1. Og Salómon, sonur Davíds, festist í sínu Kóngs dæmi, og Drottinn, hans Gud, var med honum og giørdi hann mjøg mikinn. 2. Og Salómon baud øllum Ísrael, høfdíngjunum yfir þúsund og hundrad (manns) og dómurum, og høfdíngjunum í øllum Ísrael, høfudsmønnum ættanna, 3. ad þeir færu, Salómon og allur søfnudurinn med honum, til hædarinnar í Gíbeon; því einmidt þar var samkomutjald Guds, sem Móses, Drottins þénari, hafdi gjørt í eydimørkinni. 4. Þó hafdi Davíd flutt Guds ørk frá Kirjat-Jearim, á þann stad sem Davíd hafdi henni tilreidt, því hann setti henni tjald í Jerúsalem; 5. En eir-altarid, sem Basaleel, son Uri, Hurs sonar gjørdi, hafdi hann sett fyrir framan Drottins bústad; og þángad leitadi Salómon og søfnudurinn. 6. Og Salómon fórnfærdi þar fyrir Drottni á eir-altarinu, sem stód fyrir framan samkundutjaldid; og hann offradi á enu sama þúsund brennifórnum.

7. Á þeirri sømu nótt birtist Gud Salómon og sagdi vid hann: bid einhvørs, hvad skal eg géfa þér? 8. Og Salómon svaradi Gudi: þú audsýndir fødur mínum Davíd mikla nád, og hefir gjørt mig ad Kóníngi í hans stad; 9. hald þú nú, Gud Drottinn! þitt ord vid minn fødur Davíd! þú hefir gjørt mig ad Kóngi yfir þad fólk sem er svo margt sem duft jardar; 10. svo géf mér nú vísdóm og þekkíngu, ad eg gángi út og inn fyrir þessu fólki; því hvør gétur dæmt þetta þitt marga fólk? 11. Og Gud mælti til Salómons: sökum þess ad þú ert svona sinnadur og badst ekki um aud fjár, og heidur og dauda þinna óvina, og badst ekki um lánga æfi, heldur badst um vísdóm og þekkíngu, ad þú gjætir dæmt mitt fólk, yfir hvørt eg hefi gjørt þig ad Kóngi, 12. svo er þér géfin vísdómur og þekkíng; og ríkidæmi og góts og heidur mun eg géfa þér, (svo mikid), ad Kóngarnir sem fyrir þig voru høfdu ei þvílíkt, og einginn mun hafa eptir þig. 13. Og svo kom Salómon frá hædinni í Gíbeon aptur til Jerúsalem, frá samkundutjaldinu, og ríkti yfir Ísrael.

14. Og Salómon safnadi sér vøgnum og reidmønnum, og hafdi þúsund og 4 hundrud vagna, og 12 þúsund reidmenn, og lét þá vera í vagnstødunum og hjá Kónginum í Jerúsalem.

15. Og Kóngurinn gjørdi gull og silfur í Jerúsalem ei ónægara enn grjót, og Sedrusvid gjørdi hann jafnmikinn sem mórberja vid er vex á láglendi. 16. Og hestar voru færdir Salómon frá Egyptalandi, heilir hópar, kaupmenn Kóngsins sóktu þá fyrir peninga. 17. Og þeir komu med frá Egyptalandi vagninn fyrir 6 hundrud sikla silfurs, og hestinn fyrir hundrad og fimtíu, og líka færdu þeir (þá) øllum Hetíta Kóngum og Sýrlands Kóngum.

## 2. Kapítuli.

Undirbúníngur til Musterisbyggíngarinnar. (1 Kgb. 5).

1. Og Salómon hafdi í huga ad byggja hús Drottins nafni, og hús fyrir sitt konúnglegt adsetur. 2. Þá taldi Salómon frá 70 þúsund manns til ad bera byrdar, og 80 þúsund steinhøggvara og 3 þúsund og 6 hundrud forstødumenn, yfir þessa. 3. Og Salómon sendi til Húrams Kóngs í Týrus, og lét segja honum: eins og þú breittir vid Davíd fødur minn, og sendir honum Sedrusvid til ad byggja sér hús til íbúdar, (svo breit vid mig). 4. Sjá! eg byggi hús, nafni Drottins míns Guds til ad helga honum þad, tendra fyrir honum ilmandi reyk, fyrir þau stødugu skodunar braud og brennifórnir kvøld og morgna, á hvíldardøgum og túnglkomu døgum og hátídum Drottins vors Guds, eilíf er sú skylda Ísraels. 5. Og hús þad sem eg byggi skal vera stórt; því vor Gud er stærri enn allir gudir. 6. En hvør hefir þrek til ad byggja honum hús? því himinin og allra himna himin tekur hann ekki, og hvør em eg, ad eg skuli byggja honum hús? nema þad skyldi vera til ad tendra honum reykélsi. 7. Og send þú mér nú mann sem vit hefir á ad vinna ad gulli og silfri og eiri og járni, og raudum purpura, og skarlati, og bláum purpura, og kann ad útskéra, med þeim hagleiksmønnum sem hjá mér eru í Júda og Jerúsalem, sem fadir minn Davíd, útvegadi. 8. Og sendu mér nú Sedrus- og furuvid og Hebentré frá Líbanon, því eg veit ad þinir þegnar kunna ad høggva vid á Líbanon; og sjá! mínir þjónar skulu vera med þínum þjónum. 9. Og eg þarf ad draga ad mikinn vid, því hús þad sem eg byggi á ad vera mikid og merkilegt. 10. Og sjá! fyrir trésmidina, þá sem vidinn fella, vil eg géfa mulid hveiti, þínum þjónum, 20 þúsund Kor, og bygg 20 þúsund Kor, og vín, 20 þúsund bat, og vidsmjør, 20 þúsund bat. 11. Og Huram, Kóngur í Týrus svaradi skriflega og sendi til Salómons: þared Drottinn elskar sitt fólk, hefir hann sett þig Konúng yfir þad. 12. Og Huram mælti: lofadur veri Drottinn, Ísraels Gud, sem gjørt hefir himin og jørd, sem gaf Davíd Konúngi son, vitrann, hygginn, og fródann, sem mun byggja Drottni hús og sér hús fyrir Konúngs setur. 13. Og nú sendi eg hygginn og velkunnandi mann, (nefnilega) Huram Abi, 14. son konu nokkurrar af dætrum Dans, en fadir hans var Týriskur madur, sem kann ad smída gull og silfur, eir og járn, vinna ad steini og vid, ad raudum og bláum purpura og líni og skarlati, og ad gjøra skurdverk, og útgrunda allslags snildarverk sem fyrir hann verda løgd, med þínum hagleiks mønnum, og med hagleiks mønnum míns herra Davíds, fødur þíns. 15. Og sendi hann nú hveitid og byggid og vidsmjørid og vínid, hvar um minn herra hefur talad, sínum þjónum. 16. Svo skulum vér høggva vid á Líbanon eptir allri þinni þørf, og vér viljum færa þér hann í flota á sjónum hjá Jafo (Joppe), og þú gétur þá látid flytja hann til Jerúsalem.

17. Og Salómon taldi alla útlendínga sem voru í Ísraels landi, eptir því tali sem Davíd fadir hans hafdi talid, og þar fundust 153 þúsund og 6 hundrud. 18. Og hann gjørdi

úr þeim 70 þúsund listamenn og 80 þúsund steinhøggvara á fjallinu, og þrjú þúsund og 6 hundrud forstødu menn, ad halda fólkinu til vinnu.

## 3. Kapítuli.

Um musteris bygginguna. (1 Kgb. 6. 7.)

1. Og Salómon byrjadi ad byggja Drottins hús í Jerúsalem á Moría fjalli, sem Davíd, fødur hans var vísad á, á þeim stad sem Davíd hafdi tiltekid á Arnans Jebúsíta hlødu plátsi. 2. Og hann fór ad byggja í ødrum mánudi á ødrum degi, á 4da ári sínnar ríkisstjórnar. 3. Og þetta var grundvøllurinn sem Salómon lagdi til Guds húss byggíngar: leingdin, eptir gømlu máli var 60 álnir, og breiddin 20 álnir. 4. Og framhúsíd, sem eptir leingdinni var húsins breidd, þad var 20 álnir, og hædin hundrad og tuttugu, og hann klæddi þad innan med skíru gulli. 5. Og þad stóra hús þiljadi hann med furutré, og klæddi þad med gódu gulli, og gjørdi þar á pálmavid og kédjur. 6. Og hann setti húsíd dírum steinum til prýdi; en gullid var gull frá Parvaim. 7. Og hann klæddi húsíd, bjálkana, þrepskjøldana, veggina og vængjahurdirnar med gulli, og skar Kerúba inn á veggina.

8. Og hann gjørdi hús þess allrahelgasta, þess leingd, eptir breidd húsins, 20 álnir, og þess breidd 20 álnir, og klæddi þad med gódu gulli, hérumbil 6 hundrud vættum. 9. Og þýngdin til naglanna var hérumbil 50 siklar gulls, og loftsalina klæddi hann og med gulli. 10. Hann gjørdi og í húsi þess allrahelgasta tvo Kerúba, á þeim var skurdverk, klædda gulli. 11. Og Kerúbanna leingd var 20 álnir; vængur annars, 5 álnir á leingd, snerti húsins vegg, og hinn vængurinn, 5 álna lángur, snerti væng þess annars Kerúbs; 12. og vængur hins annars Kerúbsins, 5 álna lángur, snerti vegg húsins, og sá annar vængur, 5 álna lángur, nam vid væng hins Kerúbsins. 13. Vængir þessara Kerúba, útþandir voru 20 álnir á leingd, og þeir (Kerúbarnir), stódu á sínum fótum, og þeirra andlit snéru ad (fram) húsinu. 14. Og hann gjørdi fortjaldid af bláum og raudum purpura og skarlati og líni, og þar á gjørdi hann Keruba.

15. Og hann gjørdi fyrir framan húsíd tvo stólpa, hædin (var) 35 álnir, og hnúdurinn (høfudid) efst á þeim var 5 álna lángur. 16. Hann gjørdi kédjur á kórnum og (sømuleidis) efst á stólpunnm og gjørdi hundrad kjarn (Granat) epli og festi þau vid kédjurnar. 17. Og hann reisti stólpana fyrir framan musterid, annan hægrameigin og hinn vinstrameigin, og nefndi þann sem var hægramegin Jakin, en þann sem var vinstramegin Bóas.

## 4. Kápítuli.

Sama efni.

1. Og hann gjørdi altari af eiri, 20 álnir var þess leingd, og 20 álnir þess breidd, og 10 álnir þess hæd. 2. Hann gjørdi og steypt haf, 10 álnir voru frá þess eina barmi til hins annars, þad var algjørlega kringlótt, fim álna djúpt, og 30 álna laung snúra nádi í kríngum þad. 3. Og nauts bílæti voru undir því í hríng standandi, 10 álna, sem umkríngdu hafid, tvær radir af nautum, samsteyptum med hinu sama. 4. Þad stód á 12 nautum, þrjú snéru til nordurs, þrjú snéru til vesturs og þrjú snéru til sudurs, og þrjú snéru til austurs, og hafid stód á þeim, og allur aptari hlutinn á þeim snéri innad. 5. Þikkt hafsins var þverhønd, og barmurinn var eins gjørdur og barmur á bikar, (mindadur) sem lilju blóm, þad tók (mørg) bøt, þad tók þrjú þúsund (bøt). 6. Og hann gjørdi 10 skálar, og setti 5 hægra megin, og 5 vinstra megin, til þess í þeim ad þvo; hvad sem brennifórnum tilheyrdi, skoludu

þeir í þeim; en hafid var til þvottar fyrir prestana.

7. Hann gjørdi tíu ljósa stjaka af gulli, eins og þeir skyldu vera, og lét þá í musterid, fim hægramegin og fim vinstramegin. 8. Og hann gjørdi tíu bord, og setti þau í musterid, fim til hægri handar og fim til vinstri, og gjørdi hundrad skálar af gulli. 9. Og hann gjørdi forgard fyrir prestana, og þann stóra forgard, og dyr á þeim stóra forgardi, og vængja hurdirnar fódradi hann med eiri. 10. Og hafid setti hann vid hægri hlid húsins austan til mót sudri.

11. Og Huram gjørdi potta og sleifar og skálar, og lauk vid verkid sem hann vann í Guds húsi fyrir Kóng Salómon; 12. tvo stólpa og kúlurnar og knappana efst á stólpunum; og þau tvø netverk til ad hylja bádar kúlur knappanna sem voru efst á stólpunum. 13. Og þau 4 hundrud kjarnepli til hvørutveggju netverksins, tvær radir af kjarneplum til hvørs netverks, til hlífdar bádum hnúdunum á stólpa høfdunum; 14. og bordstólana gjørdi hann og mundlaugarnar á stólunum; 15. þad eina haf og þau 12 naut undir því; 16. og pottana og sleifarnar og krókana og øll tilheyrandi áhøld gjørdi Huram Abiv fyrir Kóng Salómon í húsi Drottins, af skigndu eiri. 17. Í Jórdans héradi lét Kóngur steypa þetta, milli Sukot og Seredata. 18. Og Salómon gjørdi øll þessi áhøld mørg; því þýngd eirsins vard ekki rannsøkud. 19. Og Salómon gjørdi øll verkfærin í Guds húsi, nefnil: gull- altarid og bordin og skodunarbraudin þar á. 20. Og ljósastjakana og þeirra lampa, ad þeir loga skyldu, eptir sidvenju, fyrir framan kórinn, af díru gulli, 21. og liljurnar og lampana og skarbítina af gulli; allt af kláru gulli; 22 og hnífana og skálirnar og bikarana og reyk kérin af díru gulli, og í dyrum húsins, þeirra hurdir, þær innri, þess allrahelgasta, og dyrahurd húsins, musterisins, af gulli. 5. Kap. 1. Og svo var øllu verkinu lokid sem Salómon gjørdi fyrir Drottins hús, og Salómon flutti þángad inn, þad sem Davíd fadir hans hafdi helgad; og silfrid og gullid og øll áhøld lagdi hann í fjárhirdslu Guds húss.

## 5. Kapituli.

*Vígsla musterisins. (1 Kgb. 8.)*

2. Þá samankalladi Salómon þá eldstu í Ísrael til Jerúsalem, og alla høfudsmenn ættkvíslanna, høfdíngja Ísraels sona ættlida, til ad flytja sáttmáls ørk Drottins úr Davíds borg, þad er Síon. 3. Og allir Ísraelsmenn komu til Kóngsins á hátídinni (þad er sá sjøundi mánudur). 4. Og allir þeir eldstu í Ísrael komu, og Levítarnir báru ørkina. 5. Og þeir fluttu ørkina og samkundutjaldbúdina og øll heiløg áhøld sem voru í tjaldinu, þau fluttu prestarnir, Levítarnir. 6. Og Salómon Kóngur og allur Ísraels søfnudur, sem til hans var kominn, var frammi fyrir ørkinni og fórnfærdi saudum og nautum, sem hvørki urdu talin né reiknud fyrir fjølda sakir. 7. Og prestarnir fluttu sáttmáls ørk Drottins á sinn stad í kór hússins, í þad allrahelgasta, undir vængi Kerúbanna. 8. Og Kérúbarnir útbreiddu vængina yfir arkarinnar stad, og huldu ørkina og hennar steyngur uppyfir. 9. Og steyngurnar voru svo lángar ad endarnir á þeim sáust frá ørkinni fyrir framan kórinn, en þeir sáust ekki ad utan til; og þeir voru þar allt til þessa dags. 10. Ekkért var í ørkinni nema ad eins bædi spjøldin, sem Móses lagdi (þar í) á Horeb, þegar Drottinn gjørdi (sáttmála) vid Ísraels syni, þá þeir fóru úr Egyptalandi.

11. Og þad skédi, þá prestarnir geingu út úr helgidóminum (því allir prestar, sem þar voru, høfdu helgad sig, umskiptanna var ekki

gjætt), 12. og Levítarnir, nefnil: saungvararnir, þeir allir, svosem: Asaf, Heman, Jedutún og þeirra synir og þeirra bræður klæddir líni, með hornum og með hørpum og með hljóðpípum, stóðu austantil við altarið, og hjá þeim hérumbil hundrað og 20 prestar, sem blésu í básúnur; 13. og sem einn (maður) væri, hljómuðu básúnurnar og saungvararnir með einni rødd, lofandi Drottinn og þakkir gjørandi; og þá þeir hófu upp røddina, með básúnum og hornum og hljóðfærum og með þakkargjørð við Drottinn, að hann væri góðgjarn, að hans náð væri eilíf, svo varð húsið, Drottins hús, fullt af skýi nokkru; 14. og prestarnir gátu ekki staðið þar til að gégna þjónustugjørðinni sakir skýsins; því dýrð Drottins hafði fyllt Guðs hús.

## 6. Kapítuli.

*Vígslurœða Salómons Kóngs.*

1. Þá mælti Salómon: Drottinn hefir ásett sér að búa í dimmunni. 2. En eg hefi byggt þér hús til íbúðar og stað til aðseturs að eilífu. 3. Og Konúngurinn snéri sínu andliti og blessaði allann Ísraels søfnuð, og allur Ísraels søfnuður stóð. 4. Og hann mælti: lofaður sé Drottinn Ísraels Guð, sem talaði með sínum munni til Davíðs føður míns, og framkvæmdi það með sinni hendi, þá hann sagði: 5. frá þeim degi, er eg flutti mitt fólk úr Egyptalandi, hefi eg eingann stað útvalið meðal allra Ísraels kynkvísla, til að byggja hús, að mitt nafn væri þar, og hefi eingann mann kosið høfðíngja yfir mitt fólk Ísrael; 6. en eg valdi Jerúsalem, að mitt nafn væri þar, og kaus Davíð, að hann væri yfir mínu fólki. 7. Og føður mínum Davíð var í hug að byggja hús nafni Drottins, Ísraels Guðs, 8. og Drottinn sagði til Davíðs, føður míns: þareð þér hefir komið í hug að byggja hús nafni Drottins, svo hefir þú gjørt vel að þér var það í hug; 9. samt skalt þú ekki byggja húsið, heldur sonur þinn, sem kémur af þínum lendum, sá hinn sami skal byggja mínu nafni hús. 10 Og Drottinn hefir haldið það orð, er hann talaði, og eg kom í stað føður míns Davíðs, og settist í Ísraels hásæti, eins og Drottinn hafði talað, og byggði hús nafninu Drottins Ísraels Guðs. 11. Og eg setti þángað inn ørkina, í hverri að er sáttmáli Drottins sem hann gjørði við Ísraelssyni. 12. Og (Salómon) gékk fyrir altari Drottins, í nærveru alls Ísraels safnaðar og rétti út sínar hendur. 13. Salómon hafði nefnilega gjørt stall af eiri og sett hann miðt í forgarðinn, hann var 5 álna lángur, og 5 álna breiður, og 3 álnir á hæð og upp á hann sté hann, og lagðist á kné í augsýn alls Ísraels safnaðar, og hóf upp sínar hendur til himins, 14. og mælti: Drottinn, Ísraels Guð, einginn Guð er sem þú í himni og á jørðu, þú sem heldur sáttmála (og auðsýnir) náð þínum þjónum, er gánga fyrir þér með einlægu hjarta, 15. þú sem héldst við þinn þjón føður minn Davíð það sem þú við hann talaðir; þú hefir talað það með þínum munni, og framkvæmt með þinni hendi, einsog nú (er skéð). 16. Og nú, Drottinn Ísraels Guð! haldt þú við þinn þjón Davíð, føður minn, það sem þú talaðir við hann, þá þú sagðir: þig skal ekki vanta mann frammi fyrir mér, sem sitji í Ísraels hásæti, þegar synir þínir að eins géfa gjætur að sínum vegum, að gánga eptir mínu løgmáli, einsog þú hefir geingið fyrir mér. 17. Og nú, Drottinn Ísraels Guð! þitt orð, sem þú talaðir við þinn þjón Davíð, sé statt og støðugt.

18. Mundi Guð í raun réttri búa hjá mønnum á jørðunni? Sjá! himininn og allir himnanna himnar taka þig ekki, miklu miður það hús sem eg hefi þér byggt. 19. En snú þér til bænar þíns þjóns og til hans grátbeiðni,

Drottinn, minn Gud! ad þú heyrir ákall og bæn þá, sem þinn þjón í dag bidur frammi fyrir þér, 20. ad þín augu séu opin yfir þessu húsi dag og nótt, yfir þeim stad, um hvørn þú hefir sagt, ad þú viljir láta þitt nafn vera þar; ad þú heyrir þá bæn, sem þinn þjón mun bidja á þessum stad. 21. Svo heyr þá grátbeidni þíns þénara og þíns fólks Israels, sem þeir munu bidja á þessum stad; heyr hana í þínum adseturs stad himninum, heyr og fyrirgéf (synd). 22. Þegar einhvør syndgar móti sínum náunga, og menn leggja á hann eid, ad hann sverji, og eidurinn kémur fyrir þitt altari, í þessu húsi: 23. svo heyr þú í himninum, og gjør og dæm þinn þjón, ad þú gjaldir þeim seka, og leidir hans breitni (veg) yfir hans høfud, og réttlætir þann, sem hefir rétt málefni, med því ad endurgjalda honum eptir hans réttlæti. 24. Og þegar þitt fólk Israel verdur sigrad af sínum óvinum, af því þad syndgar á móti þér, og þad umvendir sér og vidurkénnir þitt nafn, og bidur og grátbænir þig í þínu húsi: 25. svo heyr þú í himninum og fyrirgéf syndirnar þínu fólki Israel, og leid þá heim aptur í þad land sem þú gafst þeim og þeirra fedrum. 26. Verdi himninum lokad og ekkért regn komi, af því þeir syndga móti þér, og þeir bidja á þessum stad, og vidurkénna þitt nafn, snúa sér frá sínum syndum, af því þú audmýkir þá: 27. svo heyr þú í himninum og fyrirgéf syndir þinna þjóna og þíns fólks Israels, eptir ad þú hefir sýnt þeim þann góda veg sem þeir eiga ad gánga á, og géf regn landinu, sem þú gafst þínu fólki til eignar. 28. Sé dírtíd í landinu, sé drepsótt, sé bruni og visnun (kornsins) engisprettur, kálormar; þreyngi þeirra óvinir ad borgarhlidunum í þeirra landi, einhvør plága, einhvør sótt: 29. allar bænir, alla grátbeidni sem þá mun gjørd verda, af hvørjum sem helst manni og af øllu þínu fólki Israel, þegar þeir kénna til, hvør sinnar plágu, og sinna meina, og útbreida sínar hendur til þessa húss: 30. þá heyr þú þad í himninum, á þínum adseturs stad, og fyrirgéf, og gjør vid einn og sérhvørn eptir hans breitni, eptir því sem þú þekkir hans hjarta; því þú einn þekkir hjarta mannanna sona, 31. svo þeir óttist þig og gángi á þínum vegum allann þann tíma sem þeir lifa í landinu er þú gafst þeirra fedrum. 32. Líka þann útlenda, sem ekki er af þínu fólki Israel, og kémur úr fjærlægu landi, søkum þíns mikla nafns, og þinnar styrku handar, og þíns útrétta arms, og kémur og bidur í þessu húsi, 33. svo heyr þú í himninum, á þínum adseturs stad, og gjør allt, sem sá útlendi bidur þig um, til þess ad allar þjódir á jørdinni vidurkénni þitt nafn, og óttist þig, eins og þitt fólk, Israel, og ad þeir viti, ad þetta hús, sem eg hefi byggt, er nefnt eptir þínu nafni. 34. Þegar þitt fólk fer í stríd móti sínum óvinum, um þann veg, sem þú sendir þad, og þeir bidja þig (og snúa sér) til þessa stadar, sem þú hefir útvalid, og til þess húss, sem eg hefi byggt þínu nafni: 35. svo heyr í himninum þeirra bæn og þeirra grátbeidni, og lát þá ná sínum rétti. 36. Ef ad þeir syndga á móti þér (því eingínn madur er sá ad hann ekki syndgi) og þú reidist þeim og ofurselur þá þeirra óvinum, og sigurvegarar þeirra flytja þá í fjærlægt eda nálægt land; 37. Og þeim geingur þad til hjarta, í því landi, hvørt þeir eru fluttir herteknir, og umvenda sér og grátbæna þig, í landi sinna sigurvegara, og segja: vér høfum syndgad og brotid og verid ógudlegir; 38. og þeir snúa sér til þín af øllu hjarta og allri sálu, í landi þeirra herleidíngar, hvørt menn hafa flutt þá hertekna, og bidja (og snúa sér) til síns lands, sem þú gafst þeirra fedrum og til þess stadar sem þú útvaldir, og til þess

húss sem eg byggdi þínu nafni: 39. svo heyr í himninum, þínum adseturssstad, þeirra bæn og þeirra grátbeidni, og réttu hluta þeirra, og fyrirgéf þínu fólki þad sem þeir syndgudu móti þér. 40. Svo lát nú, minn Gud! þín augu vera opin, og þín eyru géfa gaum bænum þessa stadar. 41. Og tak þig nú upp, Gud Drottinn! til þíns hvíldarstadar, þú og ørk þinnar dýrdar! þínir prestar, Gud Drottinn, séu klæddir velferdinni, og þínir gudræknu gledji sig vid hid góda. 42. Gud Drottinn! útskúfa ekki þínum smurda, hugsa þú til þinnar nádar vid Davíd þinn þénara!

## 7. Kapítuli.

Fórnfæríngar. Laufskálahátídin. Gud birtist Salómon. (1 Kgb. 9, 1—9).

1. En er Salómon hafdi endad bænina, féll eldur af himni og eyddi brennifórninni og slátursfórninni, og dýrd Drottins uppfyllti húsid; 2. Og prestarnir gátu ei geingid um Drottins hús, því dýrd Drottins uppfyllti Drottins hús. 3. Og allir Israels synir sáu hvørsu eldurinn og dýrd Drottins kom nidur yfir húsid, og beigdu sig med andlitid til jardar nidur á gólfid, og tilbádu og þøkkudu Drottni ad hann væri gódgjarn og hans nád eilíf. 4. Og Kóngurinn og allt fólkid færdu Drottni fórnir. 5. Og Salómon Kóngur offradi 22 þúsundum nauta og hundrad og 20 þúsundum sauda, og svo vígdi Konúngurinn og allt fólkid Guds hús. 6. Og prestarnir stódu ad sínum størfum og Levítarnir med hljódfærum Drottins, sem Davíd Konúngur hafdi gjørt, til ad þakka Drottni, ad hans nád væri eilíf, þegar Davíd med þeim saung (Drottni) lof; og prestarnir blésu í básúnur gagnvart þeim, og allur Israel stód (þar). 7. Og Salómon helgadi forgardinn fyrir framan Drottins hús; því þar offradi hann brennifórnunum og þakkarfórnanna fitu; því eir altarid sem Salómon gjørdi, gat ekki rúmad brennifórnirnar og matoffrid og fituna. 8. Og svo hélt Salómon á sama tíma hátídina í 7 daga, og allur Israel med honum, mikill søfnudur, frá Hemat til Egyptalands lækjar. 9. Og á áttunda deginum héldu þeir hátídlega samkomu; því vígslu altarisins héldu þeir í 7 daga, og hátídina í 7 daga. 10. Og á tuttugasta og þridja degi í sjøunda mánudi lét hann fólkid frá sér heim fara, gladvært og í gódu skapi, sakir alls þess góds sem Drottinn hafdi látid í té vid Davíd og Salómon og sitt fólk Israel.

11. Og svo fullgjørdi Salómon Drottins hús og sitt hús; og allt sem Salómon hafdi komid í hug ad gjøra í Drottins húsi og sínu húsi, þad lukkadist. 12. Þá birtist Drottinn Salómon um nóttina og mælti til hans: Eg hefi heyrt þína bæn og valid mér þenna stad, fyrir fórnfæringa hús. 13. Þegar eg læsi himninum, og ekkért regn kémur, og þegar eg býd eingisprettum ad uppeta landid, og eg sendi drepsótt yfir mitt fólk; 14. Og mitt fólk audmýkir sig, þad sem nefnt er eptir mínu nafni, og þeir bidja og leita míns auglitis, og snúa sér frá sínum vondu vegum: svo vil eg heyra í himninum og fyrirgéfa þeirra syndir og lækna (gjøra jafngott) þeirra land. 15. Nú skulu mín augu opin vera og mín eyru géfa gaum bænum á þessum stad. 16. Og nú hefi eg útvalid og helgad þetta hús, ad mitt nafn sé þar ad eilífu, og mín augu og mitt hjarta skal ávallt vera þar. 17. Og ef þú geingur fyrir mér, eins og Davíd, fadir þinn, gékk, svo ad þú breitir algjørlega eins og eg býd þér, og haldir mína setnínga og réttindi: 18. svo vil eg stadfesta hásæti þíns Konúngdóms, eins og eg hét fødur þínum Davíd, þá eg sagdi: Þig skal ekki vanta mann sem drottni yfir Israel. 19. En ef þér fallid frá, og yfirgéfid mína setnínga og bodord, sem eg hefi lagt fyr-

ir ydur, og farid og þjónid ødrum gudum og tilbidjid þá: 20. svo mun eg rífa þá burt úr mínu landi sem eg gaf þeim, og eg mun burtsnara frá mínu augliti þessu húsi, sem eg hefi helgad mínu nafni, og mun gjøra þad ad ordtæki og skoprædu medal allra þjóda. 21. Og hvørjum sem geingur fram hjá þessu húsi, sem var svo hátt, mun ofbjóda og segja: því hefir Drottinn svona farid med þetta land og þetta hús. 22. Og menn munu segja: af því ad þeir yfirgáfu Drottinn, Gud fedra sinna, sem flutti þá burt úr Egyptalandi, og gripu til annara guda og tilbádu þá og þjónudu þeim; þess vegna hefir hann leidt yfir þá alla þessa ólukku.

## 8. Kapítuli.

Salómon byggir borg. Heimtar kvadir. Lætur sigla til Ofír. (1 Kgb: 9, 10 — 28).

1. Og þad skédi eptir lidin 20 ár, þá Salómon hafdi byggt Drottins hús og sitt hús, 2. ad hann byggdi þá stadi sem Húram hafdi géfid Salómon, og gaf þar bústadi Israelssonum. 3. Og Salómon fór til Hemat í Sóba, og vann (borgina). 4. Og hann byggdi Tadmor í eydimørkinni, og alla vista stadina, sem hann byggdi í Hemat. 5. Og hann byggdi Betóron þann efri og Betóron hinn nedri, fasta stadi med múrum, hurdum og slagbrøndum, 6. og Baelat, og alla vista stadina, sem Salómon hafdi, og vagn stadina, og reidmanna stadina, og allt sem Salómon lángadi til ad byggja í Jerúsalem og á Líbanon og í øllu landi síns herradæmis. 7. Allt þad fólk sem eptir var ordid af Hetítum og Amorítum og Feresítum og Hevítum og Jebúsítum, sem ekki voru af Israelssonum, 8. af þeirra sonum sem urdu eptir í landinu, eptir þá, sem Israelssynir ekki afmádu, þá tók Salómon til skyldu vinnu allt til þessa dags. 9. En af Israelssonum gjørdi Salómon einga þræla til sinnar vinnu, því þeir voru strídsmenn, og foríngjar fyrir hans vagnlidi, og foríngjar fyrir hans vøgnum og riddaralidi. 10. Og þetta eru yfir-umsjónarmenn (yfir verkinu) Salómons Kóngs: 2 hundrud og 50, sem høfdu vald yfir fólkinu. 11. Og Faraós dóttur flutti Salómon Kóngur úr Davíds borg inní húsid sem hann hafdi byggt henni, því hann sagdi: eingin kona skal búa í húsi Davíds Israels Konúngs; því heilagt er þad, sem ørk Drottins hefur inní komid.

12. Eptir þad offradi Salómon Drottni brennifórnum á Drottins altari er hann hafdi byggt fyrir framan framhúsid. 13. Því dags daglega offradi hann eptir bodordum Mósis, á hvíldar døgunum, á túnglkomu døgunum og hátídunum, þrisvar á ári, á hátíd þess ósýrda brauds og á viku hátídinni og á laufskála hátídinni. 14. Og hann tilsetti eptir nidurskipun fødur síns Davíds, presta flokkana til þeirra þjónustu, og Levítana til þeirra starfa til ad sýngja lof og þéna ad því dags daglega fyrir prestanna augsýn, og dyraverdina eptir þeirra flokkum í hvørjum dyrum. 15. Og menn viku ekki frá bodordum Kóngsins um prestana og Levítana vidvíkjandi nokkru sem helst málefni, og vidvíkjandi fjársjódunum. 16. Og svo var undirbúid allt Salómons verk, allt til þess dags, ad grundvøllur Drottins húss var lagdur, og til þess þad var fullgjørt, þángad til hús Drottins var ad øllu búid. 17. Þá fór Salómon Kóngur til Eseon-Geber og til Elot vid strendur hafsins í Edoms landi. 18. Og Húram Kóngur sendi honum skip med sínum þjónum, og þjóna sem kunnu til sjáfar, og þeir komu med Salómons þjónum til Ofír og þeir sóktu þángad 4 hundrud og 50 vættir gulls, og færdu Salómon Kóngi.

## 9. Kapítuli.

Heimsókn Drottníngarinnar af Saba. Salómons dýrd og andlát. (1 Kgb: 10, 1—29).

1. Og Drottníngin af Saba heyrdi ordstýr Salómons og kom til Jerúsalem, til ad reyna Salómon med gátum, med miklu føruneyti, med úlfalda er báru ilmjurtir og mikid gull og díra steina, og hún kom til Salómons, og taladi vid hann allt sem henni bjó í brjósti. 2. Og Salómon sagdi henni allt sem hún spurdi um; og ekkért var Salómon hulid ad hann gjæti ei sagt henni (þad). 3. Og sem Drottníngin af Saba sá speki Salómons, og þad hús er hann hafdi byggt, 4. og vistirnar á hans bordi og setu hans þjóna og stødu hans sveina, og þeirra klædnad og hans gjafir, og þeirra klædnad og hans sal, þar menn geingu í Drottins hús, svo gat hún ekki orda bundist, 5. og mælti til Konúngsins: sannleiki var þad tal sem eg heyrdi í mínu landi um þín efni og þinn vísdóm; 6. og eg trúdi ekki þeirra tali, þángad til eg kom og mín augu sáu; og sjá! mér var ekki sagdur helmíngurinn af stærd þinnar speki; þú yfirgeingur þad rikti sem eg heyrdi. 7. Sælir eru þínir menn, og sælir eru þínir þjónar, sem ætíd standa frammi fyrir þér og heyra þína speki! 8. Lofadur sé Drottinn þinn Gud, sem unni þér svo ad hann setti þig í sitt hásæti sem Konúng fyrir Drottni þínum Gudi. Af því Gud elskar Israel, til ad vidhalda honum eilíflega, setti hann þig Konúng yfir þá, ad þú idkir réttindi og réttvísi.

9. Og hún gaf Konúnginum 120 vættir gulls og mikid af ilmjurtum og díra steina; og aldrei hefir sjest svo mikid af ilmjurtum sem Drottníngin af Saba gaf Salómon Kóngi. 10. (Og líka komu þjónar Húrams og þjónar Salómons sem sóktu gull til Ofír, med raudavid og díra steina. 11. Og Kóngur gjørdi úr raudavidnum stiga í Drottins húsi og í Kóngsins húsi, líka hljódfæri og hørpur fyrir saungvarana og slíkt hafdi ekki ádur sjest í Júdalandi). 12. Og Salómon Kóngur gaf Drottníngunni af Saba alla hennar eptirlaungun, hvad sem hún girntist, auk þess (sem hann gaf fyrir) þad er hún hafdi fært Kónginum. Og hún snéri heim aptur og fór í sitt land, hún og hennar þjónar.

13. Og þúngd þess gulls sem Salómon fékk árlega, var 6 hundrud 66 vættirgulls, 14. auk þess sem kom frá krømurum og kaupmenn fluttu, og allir Kóngar í Arabíu og lénsmenn í landinu færdu Salómoni gull og silfur. 15. Og Salómon Kóngur gjørdi 2 hundrud skildi af drifnu gulli, 6 hundrud siklar af drifnu gulli geingu til ad klæda hvørn skjøld, 16. og 3 hundrud buklara, af drifnu gulli, med þrem hundrud siklum gulls klæddi hann hvørn buklara, og Kóngur lagdi þá í Líbanons skógar hús. 17. Konúngurinn gjørdi og mikid hásæti af fílabeini og bjó þad med skíru gulli. 18. 6 stig voru uppí hásætid og skør af gulli var fest vid hásætid, og bríkur vóru beggjameigin vid sætid og tvø ljón stódu hjá bríkunum 19. og 6 ljón stódu á þeim 6 trøppum til beggja hlida; slíkt hefir ekki gjørt verid í nokkru Kóngsríki. 20. Øll drykkju-kér Salómons Kóngs voru af gulli, og øll húsgøgn í Líbanons skógarhúsi, voru af díru gulli; silfur var einkis metid á døgum Salómons; 21. því skip Kóngsins fóru til Tarsis med þénurum Húrams; einusinni á þremur árum komu Tarsus skipin og fluttu gull og silfur, fílabein og apakétti og páfugla. 22. Og Salómon Kóngur var meiri enn allir Kóngar jardarinnar ad audlegd og vitsku; 23. og allir Kóngar jardarinnar sóktust eptir ad sjá andlit Salómons til ad heyra hans speki, þá sem Gud hafdi géfid hans hjarta. 24. Og þeir komu, hvør einn med sína gáfu, silfur og gull, gripi og klædi, vopn og ilmjurtir, hesta

og múlasna, þad árlega á ári. 25. Og Salómon Kóngur hafdi 4 þúsund hús fyrir hesta og vagna og 12 þúsund reidmenn, og hann lét þá vera í vagnstødunum og hjá Konúnginum í Jerúsalem. 26. Og hann drottnadi yfir øllum Kóngum frá ánni allt til lands Filisteanna og til þeirra Egyptsku landamerkja. 27. Og Kóngurinn gjørdi silfrid í Jerúsalem jafnt grjóti og Sedrusvid gjørdi hann jafnan mórberja-vid, sem vex á láglendi, ad vøxtum. 28. Og menn færdu Salómon hesta úr Egyptalandi og úr øllum løndum.

29. En meiri saga Salómons, sú fyrsta og seinasta, hún stendur skrifud í søgu Natans spámanns, og í spádómum Ahia, Silonítans, og í sjónum Jedos sjáanda, vidvíkjandi Jeróbóam syni Nebats. 30. Og Salómon ríkti í Jerúsalem yfir øllum Israel í 40 ár. 31. Og Salómon lagdist hjá sínum fedrum og menn jørdudu hann í borg Davíds, fødur hans, og Róbóam hans son vard Kóngur í hans stad.

## 10. Kapituli.

*Þær tíu ættkvíslir falla frá. (1 Kgb: 12).*

1. Og Róbóam fór til Sikem, því til Sikem kom allur Israel ad gjøra hann ad Kóngi. 2. En er Jeróbóam sonur Nebats heyrdi þad, (hann var í Egyptalandi, og hafdi flúid þángad fyrir Salómon Kóngi), þá kom Jeróbóam úr Egyptalandi, 3. og þeir sendu eptir honum og kølludu hann, þá kom Jeróbóam og allur Israel, og þeir tøludu vid Róbóam og søgdu: 4. fadir þinn hefir gjørt vort ok þúngt, og gjørdu nú léttari þá hørdu þjónustu fødur þíns og hans þúnga ok, sem hann lagdi á oss, svo viljum vér þjóna þér. 5. Og hann svaradi þeim: komid til mín ad þremur døgum lidnum. Og fólkid fór burt.

6. Þá rádgadist Kóngurinn Róbóam um vid þá eldstu, sem stadid høfdu frammi fyrir Salómon fødur hans, medan hann enn lifdi, og sagdi: hvada svar rádid þér mér ad géfa þessu fólki? 7. Og þeir tøludu til hans og søgdu: viljir þú vera gódlátlegur vid þetta fólk og eptirlátur, og géfa þeim gód ord: svo munu þeir ávalt þjóna þér. 8. En hann sleppti því rádi sem øldúngarnir rédu honum og rádfærdi sig vid þá úngu, sem alist høfdu upp med honum, og frammi fyrir honum stódu. 9. Og hann sagdi vid þá: hvada svar rádid þér mér ad géfa þessu fólki, sem vid mig hefir talad og sagt: gjør þú þad ok léttara sem fadir þinn hefir á oss lagt? 10. Og þeir úngu tøludu vid hann, þeir sem med honum høfdu uppalist, og søgdu: þú verdur ad segja fólkinu, sem vid þig hefir talad og sagt: fadir þinn hefir gjørt vort ok þúngt, gjør þú oss þad léttara; svona skaltu segja vid þá: minn litli fíngur er þykkari enn fødur míns lendar; 11. og fadir minn hefir lagt á ydur þúngt ok, en eg vil þar ad auki bæta á ydar ok, fadir minn hefir agad ydur med svipum, en eg (mun refsa ydur) med skorpíónum.

12. Og er Jeróbóam og allt fólkid kom til Róbóams á þridja degi, eins og Kóngurinn hafdi talad, þá hann mælti: komid aptur til mín á þridja degi: 13. svo svaradi Kóngurinn þeim hardlega, og Róbóam Kóngur sleppti rádum øldúnganna. 14. Og taladi til þeirra eptir rádum hinna úngu, og mælti: fadir minn hefir gjørt ydar ok þúngt, en eg mun á þad bæta; fadir minn hefir agad ydur med svipum, en eg (mun aga ydur) med skorpíonum. 15. Og Kóngurinn gégndi ekki fólkinu, því svo var til hagad af Gudi, ad þad ord rættist, sem hann hafdi talad, fyrir (munn) Ahia Siloníta, til Jeróbóams sonar Nebats. 16. Og sem allur Israel sá, ad Kóngur vildi ekki

V. 27. Jafnt grjóti. Þad þótti ei meir koma til silfurs enn grjóts.

gégna þeim, svo gaf fólkid Koníngi svar og mælti: hvad er oss vandt vid Davíd, og vér høfum einga hlutdeild í syni Isaí! hvør heim í sitt tjald, Israel! sjá nú þitt hús, Davíd! og svo fór Israel í sín tjøld. 17. En yfir Israels sonum, sem bjuggu í Júda stødum yfir þeim vard Róbóam Kóngur. 18. Þá sendi Róbóam Kóngur Hadoram, sem var rentumeistari, en Israelssynir grýttu hann, svo hann dó. En Róbóam Kóngur flýtti sér í sinn vagn og flúdi til Jerúsalem. 19. Þannig gékk Israel undan húsi Davíds allt til þessa dags.

## 11. Kapítuli.

Róbóams ríkisstjórn. (1 Kgb. 14, 21 = 31.)

1. Og sem Róbóam kom til Jerúsalem, samansafnadi hann øllu húsi Júda og Benjamíns, hundrad og 80 þúsundum einvala strídsmanna, til ad strída vid Israel, til ad koma ríkinu aptur undir Róbóam. 2. Þá kom ord Drottins til Semaja, Guds mannsíns, og sagdi: 3. seg þú Róbóam syni Salómons, Júda Koníngi, og øllum Israel í Júda og Benjamín, og seg: 4. svo segir Drottinn: farid ekki, og strídid ekki vid ydar brædur, farid til baka, hvør til síns heimilis, því þetta er skéd eptir minni tilhlutan. Og þeir hlýddu Drottins ordi, og hvurfu til baka frá leidángrinum móti Jeróbóam.

5. Og Róbóam bjó í Jerúsalem, og byggdi borgir í Júda. 6. Hann bygadi Betlehem og Etam og Tekóa, 7. og Betsur og Soko og Adullam, 8. og Gat og Maresa og Síf, 9. og Adorim og Lakis og Aseka, 10. og Sarea og Ajalon og Hebron, sem eru í Júda og Benjamín, fasta stadi. 11. Og hann gjørdi kastalana sterka, og setti þar høfdíngja, og (lét þángad) vistir af mat og vidsmjøri og víni, 12. og í hvørn stad skildi og spjót, og gjørdi þá mjøg sterka. Og honum hlýddi Júda og Benjamín.

13. Og prestarnir og Levítarnir, sem voru í øllum Israel, geingu honum á hønd, úr øllum þeirra lands álfum. 14. Því Levítarnir yfirgáfu sína forstadi og sína eign, og fóru í Júda og til Jerúsalem; því Jeróbóam útskúfadi þeim og hans synir úr Drottins prests þjónustu, 15. og settu sér presta fyrir hædirnar, og fyrir þá *) stríhærdu og kálfana, sem hann hafdi tilbúid. 16. Og eptir þá komu til Jerúsalem af øllum Israels ættkvíslum, þeir sem gáfu Drottni Israels Gudi sitt hjarta, svo þeir leitudu hans, til ad færa Drottni fórnir, þeirra fedra Gudi. 17. Og þeir styrktu ríki Júda Kóngs, og festu (í tigninni) Róbóam Salómons son, í þrjú ár. Því þeir geingu á vegum Davíds og Salómons í þrjú ár.

18. Og Róbóam tók sér fyrir konu, med Mahelat, dóttur Jerímots, sonar Davíds, Abíhail, dóttur Elíabs, sonar Isaí. 19. Og hún fæddi honum syni: Jeus og Semaria og Saham. 20. Og eptir hana tók hann Maaka, dóttur Absalons; og hún fæddi honum Abia og Atai og Sísa og Salomit. 21. Og Róbóam elskadi Maaka, dóttur Absalons, meir enn allar sínar konur og hjákonur; því hann hafdi tekid sér 18 konur og 60 hjákonur, og átti 20 syni og 60 dætur. 22. Og Róbóam setti Abía, Maaka son, høfud og høfdíngja medal sinna brædra; því hann ætladi sér ad gjøra hann ad Kóngi, og hann breitti hyggilega og setti alla sonu sína í allar borgir í Júda og Benjamín, í alla fasta stadi, og fékk þeim nógar vistir og útvegadi þeim fjølda af konum.

## 12. Kapítuli.

Sama efni.

1. En sem Kóngsríki Róbóams stadfestist

V. 15. *) Þá stríhærdu: sjá 3 Msb. 17, 7.

og efldist, yfirgaf hann Drottins løgmál og allur Ísrael med honum. 2. Og þad skédi á fimta ári Róbóams Kóngs, ad Sísak Egyptalands Kóngur, fór á móti Jerúsalem, því þeir høfdu brotid móti Drottni, 3. med þúsund og 2 hundrud vagna og med 60 þúsund reidmenn; og þad fólk var óteljandi, sem med honum kom úr Egyptalandi, Lýbiskir, Súkotar og Mórlendíngar, 4. og hann vann þá føstu stadi, sem tilheyrdu Júda, og kom allt til Jerúsalem. 5. En Semaja, Spámadurinn, kom til Róbóams og til høfdíngjanna í Júda, sem komnir voru til Jerúsalem, af ótta fyrir Sísak, og sagdi vid þá: svo segir Drottinn: þér hafid yfirgéfid mig, og eg hefi líka géfid ydur í hønd Sísaks, 6. þá audmýktu þeir sig, Ísraels høfdíngjar og Konúngurinn, og søgdu: réttlátur er Drottinn! 7. En sem Drottinn sá ad þeir audmýktu sig, þá kom ord Drottins til Semaja og sagdi: þeir hafa audmýkt sig, eg vil ekki, tortína þeim, og innan skams vil eg veita þeim hjálp, og ekki skal Sísak úthella minni reidi yfir Jerúsalem; 8. samt skulu þeir honum þjóna, svo þeir vidurkénni hvad þad er, ad þjóna mér og landanna Kóngs ríkjum.

9. Og svo fór Egyptalands Kóngur, Sísak, móti Jerúsalem, og tók fjársjódu Drottins húss, og fjársjódu Kóngsins húss, allt tók hann, og hann tók gullskildina sem Salómon hafdi gjørt. 10. Og Kóngurinn Róbóam gjørdi í þeirra stad eirskildi, og trúdi fyrir þeim hønd hirdmanna foríngjans, þeirra sem vøktudu Kóngsins dyr. 11. Og svo opt sem Konúngurinn kom í Drottins hús, komu hirdmennirnir, og báru þá, og sídan báru þeir þá aptur í herbergi hirdmannanna. 12. En þá hann audmýkti sig, snérist Drottins reidi frá honum, svo hún tortíndi honum ekki algjørlega; líka var í Júda nokkud gott. 13. Og Kóngurinn Róbóam stadfestist í Jerúsalem og ríkti. Hann hafdi einn um fertugt þá hann vard Kóngur, og 17 ár ríkti hann í Jerúsalem, þeim stad, sem Drottinn hafdi útvalid, til ad geyma þar sitt nafn, af øllum Ísraels ættkvíslum. En módir hans hét Naama, Ammonitisk. 14. Og hann adhafdist illt, því hann snéri ei sínu hjarta til ad leita Drottins.

15. En saga Róbóams, sú fyrri og seinni, hún stendur skrifud í søgu Semaja Spámanns og Iddos, sjáanda, eptir ættartøluþætti. Og þar var ávallt stríd milli Róbóams og Jeróbóams. 16. Og Róbóam lagdist hjá sínum fedrum og var grafinn í Davídsborg, og Abía, hans son, vard Kóngur í hans stad.

## 13. Kapítuli.

*Abía ríkisstjórn. (1 Kgb. 15, 1—8.*

1. Á átjánda ári Jeróbóams Kóngs vard Abia Kóngur yfir Júda. 2. Þrjú ár ríkti hann í Jerúsalem, en nafn módur hans var Míkaja, dóttir Uríels frá Gíbea. Og þar var stríd á milli Abia og Jeróbóams. 3. Og Abia byrjadi strídid med heilum her duglegra strídsmanna, med 4 hundrad þúsundum einvala lids, og Jeróbóam kom á móti honum med 8 hundrud þúsundum einvala lids, røskra strídsmanna. 4. Þá gékk Abia uppá fjallid Semarim, sem liggur í Efraims fjallbygd, og mælti: heyrid mig, Jeróbóam og allur Ísrael! 5. Vitid þér ei, ad Drottinn Ísraels Gud hefir ad eilífu géfid Davíd Kóngdóm yfir Ísrael, honum og sonum hans, eptir salt sáttmála. 6. En Jeróbóam, sonur Nebats, þegn Salómons, Davídssonar, tók sig til, og gjørdi uppreisn mót sínum herra, 7. og ad honum drógust lausíngjar og afhrøk (Belíalssynir) og settu sig á móti Róbóam, syni Salómons, og Róbóam var enn nú úngur og hugdeigur, og veitti þeim ekki mótstødu.

V. 5. Salt sáttmáli; heilagur óraskanlegur sáttmáli, vid hvørn salt var brúkad.

8. Og nú ætlid þér ad standa á móti Kon-
úngdóm Drottins, í hendi Davíds sona, og þér
erud mjøg margir, og hafid hjá ydur gull-
kálfana sem Jeróbóam hefir gjørt ydur ad gud-
um. 9. Hafid þér ei útskúfad prestum Drott-
ins, Aronssonum, og Levítunum, og gjørt yd-
ur presta, eins og landanna þjódir. Hvør sem
kom med fulla hønd, med úngneyti og 7 hrúta,
sá vard prestur þeirra (guda) sem ekki eru gud-
ir. 10. En Drottinn er vor Gud, og vér høf-
um ekki yfirgéfid hann, og prestar þjóna Drottni,
synir Arons, og Levítarnir (gégna) sínum størf-
um, 11. og tendra Drottni brennifórnir, á
morgnana fyrir morguninn og á kvøldin fyrir
kvøldid, og ilmandi reykverk, og (láta) skodun-
arbraudin á bordid úr kláru gulli, og kveikja á
þeim gulllega ljósastjaka og hans lømpum kvøld
eptir kvøld; því vér gjætum þess sem gjæta er,
vid Drottinn vorn Gud; en þér hafid yfirgéf-
id hann. 12. Og sjá! fremst í fylkíngu med
oss er Gud og hans prestar, og þær hljóm-
andi básúnur, til ad æsa til orustu móti ydur.
Ísraelssynir! berjist ekki vid Drottinn ydar fed-
ra Gud, því þad mun ydur ekki lukkast.

13. En Jeróbóam lét launsátur í kríng fara
til ad koma ad baki þeirra, og svo stódu þeir
(Ísraelsmenn) gagnvart Júdamønnum, en laun-
sátrid var ad baki þeirra. 14. Og sem Júda
sást um, sjá! þá var stríd móti þeim í bak og
fyrir. Þá hrópudu þeir til Drottins, og prestarn-
ir blésu í básúnurnar, 15. og Júdamenn æptu
heróp; og sem Júdamenn æptu herópid, hrakti
Gud Jeróbóam og allann Ísrael á flótta fyrir
Abía og Júda. 16. Og Ísraelssynir flýdu
fyrir Júda og Gud gaf þá í þeirra hønd.
17. Og Abia og hans fólk gjørdu mikid mann-
fall medal þeirra, og af Ísrael féllu 5 hundr-
ud þúsund einvala strídsmenn. 18. Og svo
voru Ísraelssynir audmýktir á þeim sama tíma,
og Júdasynir urdu voldugir, því þeir reiddu
sig á Drottinn, Gud sínna fedra. 19. Og
Abía elti Jeróbóam og tók frá honum borgir,
Betel og hennar dætur, Jaesana og hennar
dætur og Efron og hennar dætur. 20. Og
Jeróbóam hafdi eingann krapt framar medan
Abía lifdi, og Drottinn sló hann, svo hann
dó. 21. En Abia efldist, og tók sér 14 kon-
ur og gat 22 syni og 16 dætur. 22. En
hin ønnur saga af Abía og hans vegir, og
hans saga, hún stendur skrifud í søgu Spá-
mannsíns Iddo. (14. Kap.) 1. Og Abía
lagdist hjá sínum fedrum, og menn jørdudu
hann í Davídsborg, og Assa hans son vard
Kóngur í hans stad. Um þessa daga hafdi
landid frid í 10 ár.

## 14. Kapítuli.

Um ríkisstjórn Assa. (1 Kgb. 15,9—24.)

2. Og Assa gjørdi þad sem var rétt og
gott í augsýn Drottins, hans Guds. 3. Og
hann tók burt þau útlendu ølturu og hædirnar,
og braut bílætin og hjó upp lundana, 4. og
baud Júda ad leita Drottins, þeirra fedra Guds,
og ad halda løgin og bodordin. 5. Og hann
tók burt úr øllum Júda stødum hædirnar og
sólar bílætin, og ríkid hafdi frid undir honum.
6. Og hann byggdi borgir í Júda, því land-
id hafdi frid, og ekkért stríd átti hann
á þeim árum; því Drottinn hafdi géfid hon-
um hvíld. 7. Og hann sagdi vid Júda: lát-
um oss byggja borgir, og setja múr í kríng-
um þær og kastala, og hurdir med slagbrønd-
um; vér høfum landid í frelsi, af því vér
høfum leitad Drottins vors Guds; vér høfum
leitad hans, og hann hefir géfid oss hvíld, allt
um kríng. Og svo byggdu þeir og þeim lukk-
adist þad. 8. Og Assa hafdi herlid sem bar
skjøld og spjót, úr Júdea 3 hundrud þúsund,

V. 5. Sólarbilætin: sjá 3 Mos. 26, 30.

og af Benjamín, sem bar skjøld og spenti boga, 2 hundrud og 80 þúsund, allt voru það duglegir menn til strídS.

9. Og Sera af Mórlandi fór á móti þeim med her, þúsundsinnum þúsund manns, og 3 hundrud vagna og komst allt til Maresa. 10. Þá fór Assa móti honum, og þeir skipudu sér nidur í fylkíngar í dalnum Sefata hjá Maresa. 11. Og Assa kalladi til Drottins síns Guds og mælti: það gjørir eingann mun hjá þér ad hjálpa þeim voldugu eda þeim vanmáttugu; hjálpa oss, Drottinn vor Gud! því á þig treystum vér, og í þínu nafni erum vér komnir á móti þessum mannfjølda; þú, Drottinn! ert vor Gud; láttu ekki mennina standast fyrir þér! 12. Þá lét Drottinn þá Mórlendsku hrøkkva fyrir Assa og Júdamønnum, og Mórlendskir flýdu. 13. Og Assa og þeir menn sem med honum voru, ráku flóttann allt til Gerar, og af Mórlendskum féllu svo margir, ad einginn þeirra héllt lífi, því þeir vóru sundurmardir fyrir Drottni og fyrir hans her. Og (Júda menn) þeir feingu mikid herfáng. 14. Og þeir unnu alla stadi í kríngum Gerar, því Drottins skélfíng var yfir þá fallin; og þeir rændu alla þá stadi, því þar var næsta mikid herfáng. 15. Líka feldu þeir nidur fjárhúsin, og ráku burt mesta fjølda af saudum og úlføldum og snéru svo aptur til Jerúsalem.

## 15. Kapítuli.

Sama efni.

1. En Guds andi kom yfir Asaría Odedsson. 2. Og hann gékk á móti Assa og sagdi vid hann: heyrid mig, Assa og allur Júda og Benjamín! Drottinn var med ydur af því þér vórud med honum; og þegar þér leitid hans, svo mun hann láta ydur finna sig; en ef þér yfirgéfid hann, svo mun hann yfirgéfa ydur. 3. Lángur tími er lidinn yfir Ísrael án þess sanna Guds, án uppfrædandi prests og án løgmáls; 4. En þegar þeir í krøggunum snéru sér til Drottins, Ísraels Guds, og leitudu hans, svo lét hann sig af þeim finna. 5. Á þeim sama tíma var hvørki sá inngángandi né útgángandi óhulltur, heldur var mikill órói yfir øllum landsins innbúum. 6. Fólk rak sig á fólk og stadur á stad; því Drottinn óspekti þá med allskonar neyd. 7. En verid þér øruggir og látid ei ydar hendur þreytast, því ydar verk eiga laun í vændum. 8. Og sem Assa heyrdi þessi ord og spádóm Odeds spámanns, óx honum hugur, og hann tók burt vidurstygdina (afgudina) úr øllu Júda landi og Benjamíns landi, og úr stødunum, sem hann hafdi unnid á Efraims fjøllum, og endurbætti Drottins altari, sem stód fyrir framan Drottins fordyri. 9. Og hann samansafnadi øllum Júda og Benjamín, og þeim útlendu med þeim, af Efraim og Manasse og Simeon; því margir af Ísrael høfdu til hans snúist, þá þeir sáu ad Drottinn, hans Gud, var med honum. 10. Og þeir samansøfnudust í Jerúsalem, í þridja mánudi, á fimtánda ári Assa ríkisstjórnar. 11. Og færdu Drottni fórnir á þeim sama degi af herfánginu, sem þeir høfdu komid med, 7 hundrud naut og 7 þúsund saudi, 12. og gjørdu þann sáttmála, ad þeir skyldu leita Drottins, þeirra fedra Guds, af øllu hjarta og allri sálu; 13. og hvør sem ekki leitadi Drottins Ísraels Guds, skyldi lífiátast, eins smár sem stór, kall sem kona. 14. Og þeir sóru Drottni med hárri rødd, og med gledi ópi, og med trumbum og básúnum. 15. Og allur Ísrael gladdist af eidnum; því af øllu hjarta sóru þeir, og med einlægum vilja leitudu þeir hans; og hann lét sig finna af þeim, og Drottinn veitti þeim frid umhverfis. 16. Af Maeka, módur Assa Kóngs, tók (Assa) líka Drottníngar tignina, fyrir það ad hún hafdi látid gjøra í offurlundinum óttalegt afgudsbílæti,

og Asa tók burt bílætid, og sundurmoladi þad, og brendi þad í Kedronsdal. 17. En hædirnar vóru ekki afteknar í Israel, þó hneig hjarta Asa algjørlega ad Drottni, medan hann lifdi. 18. Og hann flutti þad sem hans fadir hafdi helgad, og þad sem hann sjálfur hafdi helgad, í Drottins hús, silfur og gull og áhøld. 19. En einginn ófridur var allt ad 35ta ári Asa ríkisstjórnar.

## 16. Kapítuli.

Sama efni.

1. Á þrítugasta og sjøtta ári Asa ríkisstjórnar, fór Baesa Israels Kóngur, herfør móti Júda og byggdi Rama, til þess ad eingin gjæti komist inn eda út hjá Asa Júda Kóngi. 2. Þá tók Asa silfur og gull úr fjársjódum Drottins húss og Kóngsins húss og sendi til Benhadad, Kóngsins í Sýrlandi, sem bjó í Damaskus, og mælti: 3. sáttmáli er milli mín og þín, milli míns fødurs og þíns fødurs; sjá! eg sendi þér silfur og gull, bregd þú upp sáttmálanum vid Baesa Israels Kóng, svo hann áreiti mig ekki. 4. Og Benhadad fór ad ordum Asa Kóngs, og sendi sína herfóríngja móti Israels stødum, og vann Igon og Dan og Abel-Maim og øll vista-húsin, í Naftalis stødum. 5. Og sem Baesa heyrdi þad, hætti hann ad byggja Rama, og gjørdi enda á sínu verki. 6. En Asa Konúngur tók allann Júda lýd, ad þeir bæru burt steinana og vidinn frá Rama, af hvørjum Baesa hafdi byggt, og byggdi þar af Geba og Mispa.

7. En um sama leiti kom Hanani, sjáandinn, til Asa, Júda Kóngs, og mælti til hans: fyrst ad þú reiddir þig á Kónginn í Sýrlandi, og treystir ekki Drottni þínum Gudi, þá er her Sýrlands Konúngs sloppinn þér úr hendi. 8. Voru ekki Mórlendíngar og Libýar næsta margir ad tølu, med vøgnum og reidmønnum? En af því þú treystir Drottni, gaf hann þá í þína hønd. 9. Því augu Drottins fara yfir alla jørdina, til ad lidsinna þeim sem adhillast hann af øllu hjarta. Þú hefir því breytt fávíslega; því uppfrá þessu muntu hafa ófrid. 10. Og Asa mislíkadi vid sjáandann og setti hann í fánga hús; því hann reiddist honum fyrir þetta. Líka þraungdi Asa nokkrum af fólkinu, um sama leiti. 11. Og sjá! Asa saga, sú fyrri og seinni, hún er skrifud í bók Júda og Israels Konúnga. 12. Og Asa sýktist á 39da ári sinnar ríkisstjórnar, í fótum sínum, svo hann vard mikid veikur, og í sínum sjúkdómi leitadi hann ekki Drottins, heldur læknaranna. 13. Og Asa lagdist hjá sínum fedrum og dó á 41ta ári sinnar ríkisstjórnar. 14. Og menn jørdudu hann í hans grøf, sem hann hafdi høggid sér í Davíds borg, og løgdu hann í legstad sem fylltur var allshháttar ilmjurtum, samanbløndudum kunnáttulega til smurníngar, og brenndu honum mikid stórt bál.

## 17. Kapítuli.

Jósafats ríkisstjórn. (1 Kgb. 22.)

1. Og Jósafat sonur hans vard Kóngur í hans stad, og vard mektugur móti Israel. 2. Og hann setti strídsmenn í allar rambyggilegar borgir í Júda, og setulid í Júda land og Efraims stadi, sem Asa fadir hans hafdi unnid. 3. Og Drottinn var med Jósafat; því hann gékk á Davíds vegum, fødur síns, þeim fyrri, og leitadi ekki afgudanna (Baalim), 4. heldur leitadi hann Guds sínna fedra, og í hans bodordum gékk hann, og gékk eptir Israels háttalagi. 5. Og Drottinn festi Kóngs ríkid í hans hendi, og allur Israel færdi Jósafat gáfur, og hann hafdi mikinn aud og nægtir. 6. Og honum óx hugur á Drottins vegum, og hann afmádi hædirnar og offurlundana í Júda. 7. Og á þridja ári sinnar ríkisstjórnar sendi

hann sína höfdíngja, Benhail og Obadín og Sakaría, og Netaneel og Mikaja, ad þeir skyldu kénna í Júda stödum, 8. og med þeim Levítana: Semaja og Nethania og Sebadia og Asahel og Semiramot og Jónatan og Adonia og Tobia og Tob-Adonía, Levítana, og med þeim Elísama og Jóram prestana. 9. Og þeir kéndu í Júda og höfdu med sér Guds lögbók, og fóru um alla Júda stadi, og kénndu medal fólksins. 10. Og Guds ótti kom yfir allra landa Kóngsríki, sem voru í kríngum Júda, svo þau herjudu ekki á Jósafat. 11. Og nokkrir af Filisteum færdu Jósafat gáfur og silfur og skatt; líka færdu Arabiskir honum saudfé, 7 þúsund og 7 hundrud hrúta, og 7 þúsund og 7 hundrud hafra. 12. Og Jósafat efldist meir og meir, vard mikill, og byggdi í Júda, kastala og borgir med vista húsum, 13. og hafdi miklar vistir í Júda stödum, og strídsfólk, miklar hetjur í Jerúsalem. 14. Og þessi er þeirra tala eptir þeirra ættum. Í Júda var höfudsmadur yfir þúsund manns: Adna, höfdíngi, og med honum röskir menn, 3 hundrud þúsund; 15. Og ásamt honum Jóhanan, höfdíngi, og med honum 2 hundrud og 80 þúsund. 16. Og ásamt honum Amasía, sonur Sikrí, sem þjónadi Drottni sjálfviljuglega, og med honum 2 hundrud þúsund duglegra strídsmanna. 17. Og af Benjamín: strídshetjan Elíada, og med honum, vopnadir med boga og skildi, 2 hundrud þúsund; 18. og ásamt honum Jósabad, og med honum hundrad og áttatíu þúsund manns, hertýgadir til stríds. 19. Þessir voru þeir, sem þjónudu Kónginum, auk þeirra, sem Kóngurinn setti í þær rambyggilegu borgir, í öllu Júda landi.

## 18. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og Jósafat hafdi mikinn aud og nægtir. Og hann mægdist vid Akab, 2. og ad 2 árum lidnum fór hann til Akabs í Samaríu, og Akab slátradi á móti honum og því fólki sem med honum var, fjölda sauda og nauta, og neyddi hann til ad fara móti Ramot í Gílead. 3. Og Akab, Israels Kóngur, sagdi vid Jósafat, Júda Kóng: vilt þú fara med mér móti Ramot í Gílead? Og hann svaradi honum: eg sem þú, og mitt fólk sem þitt fólk, og (eg fer) med þér leidángurin. 4. Og Jósafat sagdi vid Israels Konúng: spyr þó í dag Drottins ord! 5. Þá samankalladi Israels Kóngur spámennina, 4 hundrud manns, og mælti til þeirra: eigum vér ad fara herförina til Gílead? eda á eg ad láta vera svo búid? og þeir sögdu: far þú og Gud mun géfa þad (landid) í Kóngsins hönd. 6. Og Jósafat mælti: er hér ekki enn einhvör spámadur Drottins, ad vér gjætum, fyrir hans milligaungu, adspurt? 7. Og Israels Kóngur sagdi vid Jósafat: enn er einn madur er vér gjætum látid adspyrja Drottinn; en eg hata hann, því hann spáir mér aldrei gódu, heldur ætíd illu einu; þad er Mika sonur Jimla. Og Jósafat mælti: Konúngurinn tali ei svo!

8. Þá kalladi Israels Kóngur einn af hirdmönnunum og mælti: sæk þú fljótt Mika, son Jimla. 9. En Israels Kóngur og Jósafat Júda Kóngur þeir sátu sinn í hvörju hásæti, klæddir (Kónglegum) skrúda, og þeir sátu á flöt vid inngánginn í Samaríu borgar hlid, og allir spámennirnir spádu frammi fyrir þeim. 10. Og Sedekia sonur Knaana gjördi sér horn af járni, og mælti: svo segir Drottinn: hér med muntu stánga Sýrlendska, þángad til þú gjörir útaf vid þá. 11. Og allir spámennirnir spádu eins, og mæltu: far þú móti Ramot í Gílead, þér mun þad lukkast, og Drottinn mun géfa hana í Kóngsins hönd.

12. En sá sendisveinn, er fór ad kalla Mika,

taladi vid hann og mælti: sjá! tal spámannanna í einu hljódi gédjast Kónginum, láttu nú þitt tal vera sem eins þeirra, og tala þú gott! 13. Og Mika sagdi: svo sannarlega sem Drottinn lifir! þad sem minn Gud segir mér, þad mun eg tala. 14. Og sem hann kom fyrir Konúnginn mælti Konúngurinn til hans: Mika! eigum vid ad fara og herja á Ramot í Gílead, eda á eg ad sleppa því? og hann svaradi: farid! ydur mun þad lukkast, og hún (borgin) mun verda géfin í ydar hønd. 15. Og Kóngur mælti vid hann: hvørsu opt skal eg láta þig sverja, ad þú segir mér ekki annad enn sannleika, í nafni Drottins? 16. Og hann mælti: eg sá allan Israel tvístradann um fjøllin, eins og hjørd, sem hefir eingann hirdir. Og Drottinn sagdi: þessir hafa eingann hirdir, fari hvør heim til sín í fridi. 17. Þá sagdi Israels Kóngur vid Jósafat: hefi eg ekki sagt þér þad? hann spáir mér eingu gódu, heldur íllu.

18. Og hann (Mika) mælti: heyrid þá Drottins ord: eg sá Drottinn sitja í sínu hásæti, og allan himinsins her standa honum til hægri og vinstri handar. 19. Og Drottinn sagdi: hvør vill yfirtala Akab, Israels Kóng, ad hann fari og falli hjá Ramot í Gílead? og sitt sagdi hvør. 20. Þá kom framm andi og gékk fyrir Drottinn og mælti: eg skal yfirtala hann. Og Drottinn sagdi til hans: hvørnig? 21. Og hann svaradi: eg ætla ad fara og vera lyga-andi í munni allra hans spámanna. Og hann (Drottinn) sagdi: þú skalt yfirtala hann og þú munt líka géta þad, far þú og gjør svo. 22. Og sjá! Drottinn hefir nú lagt lyga-anda í munn þessara þinna spámanna, og Drottinn hefir íllt talad þér til handa.

23. Þá gékk þar ad Sedekia sonur Knaana og rak Mika utan undir og mælti: um hvørn veg skyldi Andi Guds hafa farid frá mér til ad tala vid þig? 24. Og Mika sagdi: sjá! þú munt þad sjá á þeim sama degi, þegar þú rennur hús úr húsi til ad fela þig. 25. Og Israels Konúngur mælti: takid Mika og færid hann Amon borgmeistara og Jóas Kóngssyni 26. og segid: svo segir Kóngurinn: látid þennann í myrkvastofu og veitid honum vesældarbraud og vatn, þángad til eg kém lukkulega heim aptur. 27. Og Mika sagdi: ef þú kémur lukkulega heim aptur, svo hefir Drottinn ekki talad í mínum munni. Og hann mælti: heyri þad allur lýdur!

28. Og svo fóru þeir, Israels Kóngur, og Jósafat Júda Kóngur, til Ramot í Gílead. 29. Og Israels Konúngur sagdi vid Jósafat: í dularbúníngi vil eg gánga í orustuna, en far þú í þín klædi. Og svo klæddi Israels Konúngur sig í dularbúníng, og þeir komu í orustuna. 30. En Sýrlands Konúngur hafdi bodid og sagt fyrirlidum sinna vagna: berjist vid eingann mann, hvørki smáann né stórann, nema Israels Konúng einann. 31. Og þad skédi, þá vagnlids foríngjarnir sáu Jósafat, þvi þeir hugsudu: þetta er Israels Kóngur, þá løgdu þeir á móti honum til þess ad berjast vid hann. Þá kalladi Jósafat, og Drottinn hjálpadi honum, og Gud rak þá frá honum; 32. og sem foríngjar vagnlidsins sáu, ad þetta var ekki Israels Kóngur, hvurfu þeir frá honum.

33. En madur nokkur dró upp sinn boga í meinleysi sínu, og skaut Israels Kóng í gégnum hrínga brinjuna. Og hann sagdi vid þann sem stýrdi hans vagni: far þú med mig úr bardaganum því eg er sár. 34. Og bardaginn vard mikill á þeim sama degi, og Israels Konúngur stód í vagninum gagnvart þeim Sýrlendsku allt til kvølds, og dó um sólarlag.

V. 33. Hrínga br: adrir: milli brinjunnar og beltisins.

# 19. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og Jósafat Júda Kóngur kom lukkulega heim í sitt hús í Jerúsalem. 2. Þá gékk Jehú sonur Hanani, sjáandinn, á móti honum og sagdi vid Jósafat Konúng: á madur ad hjálpa þeim ógudlega, og þú elskar Drottins óvini? Og fyrir þá skuld kémur reidi yfir þig frá Drottni; 3. þó er eitthvad gott hjá þér fundid, ad þú hefir komid burt offur-lundunum úr landinu, og hneigt þitt hjarta til ad leita Guds.

4. Og Jósafat stadnæmdist í Jerúsalem. Og hann fór í annad sinn út medal fólksins, frá Berseba allt til Efraims fjalls, og leiddi þá aptur til Drottins, þeirra fedra Guds. 5. Og hann setti dómara í landinu, í øllum stødum Júda þeim víggirdtu, í hvørri borg. 6. Og hann sagdi vid dómarana: gáid ad hvad þér gjørid, því ekki dæmid þér fyrir mønnum heldur fyrir Gudi; og hann er hjá ydur í ydar dómara verkum. 7. Og nú sé Drottins ótti yfir ydur, gáid ad hvad þér gjørid, því hjá Drottni vorum Gudi er ekkért ránglæti og ekkért manngreinar álit og hann þiggur eingar mútur.

8. Og líka setti Jósafat í Jerúsalem Levíta og presta og ættfedur af Israel til ad dæma Drottins dóma, og til ad gégna málum, þá þeir voru komnir til Jerúsalem. 9. Og hann baud þeim og sagdi: svo skulud þér breita í ótta Drottins med trúmennsku og hreinskilnu hjarta; 10. og hvada mál sem fyrir ydur kémur fra ydar brædrum, sem búa í sínum stødum, hvørt sem þad er milli blóds og blóds, eda (vidvíkur) løgum og bodordi og setníngum og réttindum, svo undirvísíd þeim, ad þeir ekki gjøri sig seka vid Drottinn, og ad eingin reidi komi yfir þá og þeirra brædur; svo skulud þér breita, og gjøra ydur ekki seka. 11. Og sjá! Amaría, presta høfdíngi, er yfir ydur, í øllum Drottins málefnum; og Sebadía sonur Ismaels, høfdíngi yfir Júda húsi, í málefnum Kóngsins; og þér hafid fyrir ydur forstødu menn Levítanna. Verid fastir í ydar størfum! og Drottinn sé med þeim gódu.

# 20. Kapítuli.

Enn um Jósafat.

1. Og þad skédi eptir þetta, ad Móabs synir komu, og Ammons synir, og nokkrir af Meunítum med þeim til strídś á móti Jósafat. 2. Og menn komu og søgdu Jósafat (þessi tídindi) og mæltu: móti þér kémur mikill fjøldi handan yfir hafid frá Sýrlandi; og sjá! þeir eru í Haseson-Tamar, þad er Engedi. 3. Þá vard Jósafat óttasleginn, og hneigdi sig til ad leita Drottins, og kunngjørdi føstu yfir allt Júda land. 4. Og Júda samansafnadist til þess ad leita lids af Drottni, og úr øllum Júda stødum komu menn til ad leita Drottins. 5. Og Jósafat gékk fram, í samkomu Júda og Jerúsalems, í Drottins húsi, fyrir þeim nýja forgardi. 6. Og mælti: Drottinn, Gud vorra fedra, ert þú ekki Gud í himninum, og Drottnari yfir øllum Kóngaríkjum þjódanna? Í þinni hendi er kraptur og vald, og einginn gétur stadid á móti þér. 7. Hefir þú ekki, vor Gud! rekid burt innbúa þessa lands frá þínu fólki, Israel, og géfid þad ætt Abrahams, sem þig elskadi eilíflega? 8. Og þeir bjuggu þar, og bygdu þér þar helgidóm fyrir þitt nafn, og søgdu: 9. komi íllt yfir oss, sverd, refsidómur og drepsótt, og húngur, svo viljum vér gánga fyrir þetta hús og fyrir þig, því þitt nafn er í þessu húsi, og viljum til þín kalla, í vorum krøggum, og þú munt og bjarga. 10. Og sjá nú Ammons og Móabs synir og þeir frá fjallinu Seir, medal hvørra þú leyfdir ekki

V. 2. Sýrlandi, adrir lesa: Edom (sjá v. 10).

Ísrael ad koma, þá þeir fóru úr Egyptalandi, heldur hvurfu þeir frá þeim og eydiløgdu þá ekki. 11. Sjá! þeir launa oss nú svo, ad þeir koma, til ad reka oss af vorri eign, á hvørja þú settir oss. 12. Vor Gud! munt þú ekki dæma þá? því vér høfum ekki megn á móti þessum mikla fjølda, er nú kémur á móti oss, og vér vitum ekki hvad vér skulum gjøra, heldur rennum vér vorum augum til þín. 13. En allur Júda (lýdur) stód frammi fyrir Drottni, líka þeirra børn, konur og synir þeirra.

14. En yfir Jehasíel, son Sakaría, sonar Benaja, sonar Jegíels, sonar Matanías, Levítann, einn af sonum Asafs, kom andi Drottins, midt á fundinum, 15. og hann mælti: athugid, allur Júda lýdur og Jerúsalems innbúar og þú Jósafat Kóngur! svo segir Drottinn til ydar: óttist ekki, og skélfist ekki fyrir þessum mikla fjølda! því þér berjist ekki, heldur Gud. 16. Farid á morgun móti þeim: sjá! þeir munu koma yfir hædina Sis, og þér munud hitta þá hjá enda dalsins, fyrir framan eydimørkina Jeruel. 17. Þér skulud ekki þurfa ad berjast, farid ad eins þángad, stadnæmist þar, og sjáid lidsinni Drottins vid ydur. Júda og Jerúsalem! óttist ekki, verdid ekki hugleysir, farid á morgun á móti þeim, og Drottinn er med ydur. 18. Þá hneigdi Jósafat sig med andlitinu til jardar, og allur Júda (lýdur) og Jerúsalems innbúar féllu nidur fyrir Drottni, ad tilbidja Drottinn. 19. Og Levítarnir, þeir af Kahatíta sonum og Korahíta sonum, stódu upp, til ad sýngja lof Drottni, Ísraels Gudi, med mjøg hárri rødd.

20. Og snemma morguns tóku þeir sig upp, og fóru út í eydimørkina Tekoa, og sem þeir løgdu af stad gékk Jósafat fram og mælti: heyrid mig þér Júda (lýdur) og Jerúsalems innbúar! verid øruggir í trausti til Drottins, ydar Guds; trúid hans spámønnum, svo skal ydur lukkast (bardaginn). 21. Og hann rádgadist um vid fólkid, og tilsetti Drottni saungvara, sem súngu Drottni lof í helgum skrúda, og fóru undan þeim vopnudu, og søgdu: þakkid Drottni því hans miskun er eilíf! 22. Og þegar þeir byrjudu á fagnadarópinu og lofgjørdinni, setti Drottinn launsátur móti Ammonssonum, Móabs (sonum) og þeim af fjallinu Seir, er komnir voru til Júda, og þeir voru sigradir. 23. Og synir Ammons og Móabs veittu mótstødu þeim, sem bjuggu á fjallinu Seir, til ad bannfæra þá og eydileggja; og sem þeir høfdu drepid nidur í strá þá sem bjuggu á Seir, hjálpadi hvør ødrum til mann-tjóns.

24. En sem Júda (her) kom uppá hædina, (hvadan ad sjest) útá eydimørkina, þá snéru þeir sér móti fjøldanum, og sjá! þeir láu þá sem lík á jørdu, og einginn hafdi undan komist. 25. Þá kom Jósafat og hans fólk til ad taka þeirra herfáng, og þeir fundu á þeim mikid fé, og lík og díra gripi, og rændu svo miklu, ad ekki vard borid, og þeir rændu herfánginu í þrjá daga, því þad var mikid. 26. Og á fjórda degi samansøfnudust þeir í lofgjørdar dalnum; því þar lofudu þeir Drottinn, þess vegna heitir dalurinn, lofgjørdar dalur, allt til þessa dags. 27. Og svo snéru heim allir Júda og Jerúsalems menn, og Jósafat fremstur í flokki, til Jerúsalem, med føgnudi; því føgnud hafdi Drottinn géfid þeim yfir þeirra óvinum. 28. Og þeir komu til Jerúsalem med hørpum, hljódpípum og básúnum í Drottins hús. 29. Og Guds ótti féll yfir øll ríki landanna, þá þad fréttist ad Drottinn hefdi barist vid Ísraels óvini. 30. Og Jósafats ríki hafdi frid, og hans Gud lét hann hafa frid umhverfis.

31. Og svo var Jósafat Konúngur yfir

V. 24. Hædina, adr: Míspe.

Júda. Fim um þrítugt hafdi hann, þá hann vard Kóngur, og 25 ár ríkti hann í Jerúsalem. Módir hans hét Asuba, dóttir Silhi. 32. Og hann gékk á vegum síns fødur Assa, og vék ekki af, svo ad hann gjørdi þad sem Drottni vel líkadi. 33. Þó voru hædirnar, ekki afteknar, og ekki snéri fólkid enn sínu hjarta til Guds sinna fedra.

34. En hin ønnur saga Jósafats, fyrri og seinni, sjá! hún er skrifud í søgu Jehús, sonar Hanani, sem er inntekin í bók Israels Kónga.

35. Og eptir þetta gjørdi Jósafat Júda Kóngur félagskap vid Ahasía Israels Kóng, sem var ógudlegur í sinni breitni. 36. Hann gjørdi þann félagskap vid hann, ad byggja skip, til ad fara til Tarsis; og þeir byggdu skipin í Esiongeber. 37. Þá spádi Elieser sonur Dodava, af Maresa, móti Jósafat og mælti: sakir þess þú gjørdir félagskap vid Ahasía, hefir Drottinn ónýtt þitt fyrirtæki. Og skipin brotnudu, og gátu ei farid til Tarsis. (1 Kgb. 22, 49). 21. Kap. 1. Og Jósafat lagdist hjá sínum fedrum, og var grafinn hjá sínum fedrum í Davíds borg, og hans son Jóram vard Kóngur í hans stad.

## 21. Kapítuli.

Um Jóram. (2 Kgb. 8, 16—24.)

2. Og hann (Jóram) átti brædur, syni Jósafats: Asaria og Jehiel og Sakaria og Asarihan og Mikael og Sefatia; þessir allir voru synir Jósafats Israels Kóngs. 3. Og fadir þeirra gaf þeim marga gjøf í silfri og gulli og dýrgripum, samt sterkar borgir í Júda, en Kóngsríkid gaf hann Jóram því hann var frumgétinn. 4. En sem Jóram hafdi feingid ríki fødur síns, og stadfestist, drap hann alla brædur sína med sverdi, og nokkra af Israels høfdingjum. 5. Tvo um þrítugt hafdi Jóram þá hann vard Kóngur, og 8 ár ríkti hann í Jerúsalem. 6. Og hann gékk á vegum Israels Kónga, eins og Akabs hús gjørdi, því hann átti fyrir konu eina Akabs dótturina, og hann gjørdi þad sem íllt var fyrir augum Drottins. 7. En Drottinn vildi ei tortína Davíds húsi, søkum þess sáttmála, er hann hafdi gjørt vid Davíd, og eins og hann hafdi heitid honum og hans sonum, ad láta (þeim) ljós skína alla tíma. 8. Á hans døgum geingu Edomítar undan Júda, og tóku Kóníng yfir sig. 9. Þá fór Jóram med sínum herforíngjum og øllum sínum vøgnum; og hann tók sig upp um nótt, og vann sigur á Edomítum sem høfdu umkríngt hann, og á vagnlidsins foríngja. 10. Þó geingu Edomítar undan Júda allt til þessa dags. Þá um sama leiti gékk Libna undan honum (Jóram), af því hann hafdi yfirgéfid Gud sinna fedra.

11. Líka gjørdi hann hædir á Júdafjøllum, og tældi Jerúsalems innbúa til afgudadýrkunar og afvegaleiddi Júda. 12. Og til hans kom bréf frá Elía, Spámanni, sem svo hljódadi: søkum þess ad þú gékkst ekki á vegum Jósafats, fødur þíns, og á vegum Assa, Júda Kóngs; 13. heldur gékkst á vegum Israels Kónga, og leiddir Júda og Jerúsalems innbúa til afgudadýrkunar, eins og Akabshús leiddi til afgudadýrkunar, og søkum þess þú deyddir brædur þína, hús fødur þíns, sem voru betri enn þú; 14. sjá! svo mun Drottinn senda mikla plágu yfir þitt fólk og þína syni og þínar konur og yfir alla þína eign. 15. Og þú munt fá mikinn sjúkdóm í þín innísli, þángad til þín idur falla út, af sjúkdómi ár eptir ár.

16. Og svo vakti Drottinn móti Jóram anda Filisteanna og Arabiskra sem búa á hlid vid Mórlendska. 17. Og þeir fóru móti Júda, og brutust inní stadina, og fluttu burt allt þad fé sem var í Kóngsins húsi, og líka syni hans,

og konur, svo eingin sona hans var eptir, nema Jóakas, sá ýngsti af sonum hans. 18. Og eptir allt þetta sló Drottinn hann í hans iðrum með ólæknanlegum sjúkdómi. 19. Og það skéði ár frá ári, og eptir tveggja ára bil féllu út hans innísli af hans sjúkleika, og hann dó með mikilli þjáníngu; og hans fólk gjörði honum ekkért bál eins og það gjörði føður hans. 20. Tvo um þrítugt hafði hann þá hann varð Kóngur, og átta ár ríkti hann í Jerúsalem. Og hann fór svo, að hann varð ekki harmdauði, og menn jørðuðu hann í Davíðs borg, en ekki í greftrunarstað Kónganna.

## 22. Kapítuli.

Ahasía ríkisstjórn. Atalíu grimd. (2 Kgb. 8, 25—29. 9, 16. 21. 27—29. 10, 12—14. 11,).

1. Og Jerúsalems innbúar gjørðu Ahasía hans ýngsta son að Kóngi í hans stað; því alla þá eldri høfðu þeir herskarar deyðt sem komu með Arabiskum í herbúðirnar. Og svo varð Ahasía, sonur Jórams, Konúngur í Júda. 2. Tvo um fertugt hafði Ahasía þá hann varð Kóngur, og hann ríkti eitt ár í Jerúsalem. Móðir hans hét Atalia dóttir Omri. 3. Hann gékk og á vegum Akabs húss, því móðir hans, var ráðgjafi hans í guðleysinu. 4. Og hann gjørði það sem íllt var í augsýn Drottins, eins og Akabs hús, því það hið sama var hans ráðgjafi, eptir dauða føður hans, honum til tjóns. 5. Eptir þeirra ráðum fór hann og herfør, með Jóram Akabssyni Israels Kóngi, móti Hasael, Sýrlands Kóngi, til Ramot í Gilead. Og Sýrlendskir særðu Jóram. 6. Þá snéri hann við, til að láta lækna sár sín, til Jesreel, þau sár, sem Sýrlendskir høfðu veitt honum hjá Rama, þá hann barðist við Hasael Sýrlands Kóng. Og Ahasía sonur Jórams, Kóngur í Júda, lagði af stað, til að vitja Jórams Akabssonar í Jesreel. 7. Og frá Guði kom Ahasía tjón, að hann kom til Jórams, og þegar hann var þángað kominn, fór hann með Jóram móti Jehú syni Nimsí, sem Drottinn smurði til að útrýðja Akabs húsi. 8. Og það skéði, þá Jehú framkvæmdi straff á Akabshúsi, hitti hann Júda herforíngja og bróðursyni Ahasíu, sem þjónuðu Ahasía, og hann myrdti þá. 9. Og hann leitaði að Ahasía, og þeir gripu hann þar sem hann hafði falið sig í Samaríu, og færðu hann Jehú og drápu hann og grófu hann, því þeir søgðu: hann er Jósafatsson, sem leitaði Drottins af øllu hjarta.

Og í húsi Ahasía var einginn maður hæfilegur til Konúngdóms. 10. En Atalía, móðir Ahasíu, þá hún sá að sonur hennar var dauður, tók hún sig til, og fyrirfór øllum Kóngs niðjum af Júda húsi. 11. Þá tók Jósabeat, Kóngsdóttir, Jóas, Ahasíason, og stal honum burt úr hóp Kóngssonanna, sem deyddir voru, og kom honum og fóstru hans inní sængur herbergi; og svo fól Jósabeat hann, dóttir Jórams Kóngs, kona prestsins Jójada (því hún var systir Ahasía) fyrir Atalíu, að hún skyldi ei deyða hann. 12. Og hann var falinn með þeim 6 ár í Guðs húsi. En Atalía ríkti yfir landinu.

## 23. Kapítuli.

Atalía drepin. (2 Kgb. 11.)

1. Og á sjøunda ári hresti Jójada upp hugan og tók í félag með sér foríngjana yfir hundrað (manns), Asaria son Jeróhams, og Ismael son Jóhanans, og Asaria, son Obeds, og Maeseia, son Adaja, og Elisafat, son Sikri. 2. Og þeir fóru um kríng í Júda, og samansøfnuðu Levítunum úr øllum Júda støðum, og ættfeðrum Israels, að þeir kjæmu til Jerúsalem. 3. Og allur søfnuðurinn gjørði sáttmála við Kónginn í Guð húsi. Og (Jójada) sagði við þá: sjá! Kóngssonurinn skal Kóng-

ur vera, eins og Drottinn hefir heitid sonum Davíds. 4. Þetta er þad sem þér skulud gjøra: þridjúngur af ydur, af prestum og Levítum, gángi ad, á hvíldardeginum, sem dyraverdir; 5. og þridjúngurinn sé í Kóngsins húsi, og þridjúngur vid dyrnar Jesod *); og allt fólkid sé í forgardi Drottins húss. 6. Og einginn skal koma í Drottins hús nema prestarnir og þeir Levítar, sem gégna þjónustugjørdinni; þeir skulu koma þar inn, því þeir eru heilagir; og allt (annad) fólk skal halda Drottins vørd. 7. Og Levítarnir skulu skipa sér í kríngum Kónginn á allar hlidar, hvør madur med vopn sér í hendi, og hvør, sem vill brjótast inní húsid, skal deydast; og verid hjá Kónginum þegar hann geingur inn og þegar hann geingur út. 8. Og Levítarnir og allur Júda lýdur gjørdu allteins og Jójada prestur baud, og hvør einn tók sína menn, þá sem komu á hvíldar deginum (til ad halda vørd) og þá sem feingu lausn; því Jójada prestur hafdi ei látid í burtu flokkana. 9. Og Jójada prestur fékk fyrirlidunum yfir hundrad manns spjótin, buklarana og skildina Davíds Kóngs, sem voru í Guds húsi. 10. Og hann nidurskipadi fólkinu; hvør madur hafdi vopn í hendi, frá hægri hlid hússins til vinstri hlidar hússins, vid altarid og húsid, hjá Kónginum umhverfis. 11. Og þeir leiddu fram Kóngssoninn og settu uppá hann kórónuna og (réttu honum) løgin og gjørdu hann ad Kóngi, og Jójada og hans synir smurdu hann, og søgdu: Kóngurinn lifi!

12. Þá heyrdi Atalía háreysti fólksins sem flykktist ad og vegsamadi Kónginn, og hún kom til fólksins í Drottins hús. 13. Og hún sá, og sjá! Konúngurinn stód á sínum stad í inngánginum, og fyrirlidarnir og úthrópendurnir hjá Kónginum, og allt fólkid var gladvært og blés í básúnurnar, og saungvararnir med hljódfærum, kunngjørdu (hvad skéd var) og vegsømudu (Kónginn). Þá reif Atalía sín klædi og sagdi: samblástur! samblástur! 14. En Jójada prestur, lét foríngjana, yfir hundrad manns, fyrirlida hersins, framgánga og mælti til þeirra: farid med hana hédan allt innfyrir radirnar, og hvør sem henni fylgir, sé deyddur med sverdi; því presturinn sagdi: deydid hana ekki í húsi Drottins. 15. Og þeir gjørdu henni braut, og hún gékk um inngáng hrossadyranna í Kóngsins hús, og þeir drápu hana þar.

16. Og Jójada gjørdi sáttmála milli sín og alls fólksins og Kóngsins, ad þad skyldi vera Drottins fólk. 17. Þá gékk allt fólkid í Baalshús, og þeir rifu þad nidur, og altari og bílæti hans brutu þeir sundur, og Matan Baalsprest myrdtu þeir fyrir altarinu. 18. Og Jójada lagdi embætti Drottins í hønd prestanna og Levítanna, sem Davíd hafdi sett til skiptis yfir Drottins hús, til ad frambera Drottins brennifórnir, eins og skrifad stendur í Mósis løgum, med føgnudi og saung eptir Davíds rádstøfun. 19. Og hann setti dyraverdi í dyrnar á Drottins húsi, ad ekki kjæmi inn óhreinn madur af hvørri sem helst søk. 20. Og hann tók foríngjann yfir hundrad og þá gøfugustu og yppurstu medal fólksins og allt landsfólkid, og flutti Kónginn úr Drottins húsi, og þeir komu um þær háu dyr inn í Kóngsins hús, og settu Kónginn í Kóngsháságetid. 21. Og allt landsfólkid var gladt, og stadarfólkid rólegt. En Atalíu høfdu þeir drepid med sverdi.

## 24. Kapítuli.

Jóas ríkisstjórn. (2 Kgb. 12)

1. Jóas var 7 ára þá hann vard Kóngur, og 40 ár ríkti hann í Jerúsalem. En módir hans hét Sibía, frá Berseba. 2. Og Jóas gjørdi þad sem rétt var í augsýn Drottins,

*) Jesod: adrir: grundv. port.

medan Jójada prestur lifdi. 3. Og Jójada tók honum tvær konur, og hann átti syni og dætur. 4. Eptir þetta skédi þad, ad Jóas fékk í sinni ad endurbæta Drottins hús. 5. Þá samansafnadi hann prestunum og Levítunum og sagdi til þeirra: farid til allra Júda stada, og safnid peníngum af øllum Israel, til endurbótar ydar Guds húss, ár eptir ár, og hradid þessu erindi. En Levítarnir hrødudu sér ekki. 6. Þá kalladi Kóngurinn Jójada yfir (prest) og sagdi vid hann: því hefir þú ekki géfid gjætur ad Levítunum, svoad þeir tækju af Júda og Jerúsalem tollinn, Mósis Drottins þénara, og Israels safnadar, til løgmáls tjaldsins? 7. Því Atalía sú ógudlega (og) hennar synir hafa skémt Guds hús, og líka hafa þeir gjørt Baals hús af øllu því helgada í Guds húsi. 8. Og Kóngurinn skipadi ad þeir skyldu gjøra kistu, og setja hana í dyr Drottins húss. 9. Og þad var kunngjørt í Júda og Jerúsalem ad menn skyldu færa Drottni toll Mósis, Drottins þénara, sem hann lagdi á Israel í eydimørkinni. 10. Og allir yfirmenn fólksins gløddust, og komu med og løgdu í kistuna, þángad til hún var full.

11. Og þad skédi, þá sá tími kom, ad menn létu Levítana færa kistuna, til þeirra sem Kóngur hafdi til ætlad, og þá þeir sáu, ad miklir peníngar voru í henni, kom skrifari Kóngsins, og madur tilkvaddur af þeim ypparsta presti, og tæmdu kistuna og tóku hana og fluttu aptur á á sinn stad; svo gjørdu þeir dag eptir dag, og søfnudu miklum peníngum. 12. Og Kóngurinn og Jójada gáfu þad þeim er gégndu verki erfidisins í Drottins húsi, og þeir sømdu vid steinhøggvara og timburmenn, ad endurbæta Drottins hús, og líka vid járn og eirsmidi ad bæta Drottins hús. 13. Og þeir sem stódu fyrir verkinu, erfidudu, og fyrir þeirra hønd var verkid vel gjørt, og þeir settu Guds hús aptur í sitt stand, og gjørdu þad rambyggilegt. 14. Og þegar þeir høfdu lokid vid (verkid) færdu þeir Kónginum og Jójada þad sem afgángs var af peníngum, og menn gjørdu af því áhøld fyrir Drottins hús, áhøld til þjónustugjørdarinnar og til fórnfæringa og til skála, og til áhalda úr gulli og silfri. Og menn frambáru brennifórnir stødugléga í Drottins húsi, svo leingi sem Jójada lifdi.

15. En Jójada vard gamall og saddur lífdaga, hundrad og þrjátíu ára var hann þegar hann dó. 16. Og menn grófu hann í Davídsborg hjá Kóngunum, því hann hafdi gjørt gott í Israel og vid Gud og hans hús. 17. Og eptir dauda Jójada, komu Júda høfdíngjar og lutu Kónginum; þá hlýddi Kóngur á þeirra (tal); 18. og þeir yfirgáfu hús Drottins, Guds þeirra fedra, og þjónudu lundunum og afgudunum, og þar kom reidi yfir Júda og Jerúsalem søkum þessara þeirra synda. 19. Og hann sendi medal þeirra Spámenn til ad leida þá aptur til Drottins og þeir advørudu þá; en þeir gáfu því eingan gaum.

20. En andi Drottins hreif Sakaría, son Jójada prests og hann gékk á hæd fram fyrir fólkid og sagdi vid þá: svo segir Gud: því yfirtrodid þér Drottins bodord? þér munud ei verda lukkulegir! fyrst þér yfirgéfid Gud, svo yfirgéfur hann ydur. 21. Og þeir samsórust móti honum, og grýttu hann, eptir Kóngsins bodi, í forgardi Drottins húss. 22. Og ekki minntist Jóas Kóngur þeirrar velgjørdar, sem Jójada, fadir hans, hafdi audsýnt honum, þar ed hann myrdti hans son. Og þá hann (Sakarías) dó, sagdi hann: Drottinn sjer þad, og mun þess hefna! 23. En ad ári lidnu fór her móti honum (Jóas) frá Sýrlandi, og þeir komu til Júda og Jerúsalem, og drápu alla

V. 10. Var full; adr: þángad til því var lokid.

höfdíngja fólksins, á medal fólksins, og sendu allt þeirra herfáng til Kóngsins í Damaskus. 24. Ad sönnu kom lítill her Sýrlendskra, en Drottinn gaf mikinn her í þeirra hönd, af því Drottinn, Gud þeirra fedra, hafdi yfirgéfid þá, og Jóasi refsudu þeir. 25. Og sem þeir hvurfu frá honum, þeir yfirgáfu hann nefnilega med mörgum sárum, þá samsórust móti honum hans þjónar, vegna blóds, sonar Jójada prests, og myrdtu hann í hans sæng, svo hann dó. Og menn grófu hann í Davíds borg, en ekki grófu menn hann í gröfum Kónganna. 26. En þessir voru þeir sem samsórust móti honum: Sabad, sonur Simeat, Ammonítinnunnar, og Jósabad, sonur Simrit, Móabítinnunnar. 27. En um syni hans og þann stóra skatt sem á hann var lagdur, og um byggíngu Guds húss, sjá! þad er skrifad í sögubók Kónganna. Og Amasía, hans son, vard Kóngur í hans stad.

## 25. Kapítuli.

Ríkisstjórn Amasía. (2 Kgb. 14, 1—22)

1. Tuttugu og fim ára gamall vard Amasía Kóngur, og ríkti 29 ár í Jerúsalem. En módir hans hét Jóadan frá Jerúsalem. 2. Hann gjördi þad sem rétt var í Drottins augsýn, samt ekki med algjörlega einlægu hjarta. 3. En sem hann var ordinn fastur í Konúngdómnum, lét hann drepa sína þjóna, sem höfdu unnid á Kónginum, födur hans. 4. En syni þeirra deyddi hann ekki, heldur (fór hann) eptir því sem skrifad stendur í lögunum í Mósis bók, eins og Drottinn baud, þá hann sagdi: fedur skulu ekki deydast fyrir syni, og synir skulu ekki deydast fyrir fedur, heldur skal sérhvör deydast fyrir sínar syndir.

5. Og Amasía samansafnadi Júda, og lét þá fyrir sig koma eptir ættum, eptir höfudsmönnum yfir þúsund, og eptir höfudsmönnum yfir hundrad, öllum Júda (lýd) og Benjamín, og taldi þá, frá tvítugu og þar yfir, og fann þá 3 hundrud þúsund, einvala lid, færa til stríds, berandi spjót og skjöld. 6. Og leigdi sér af Jsrael hundrad þúsundir, duglegra strídsmanna, fyrir hundrad vættir silfurs. 7. En Guds madur nokkur kom til hans og mælti: Konúngur! lát þú Jsraels her ekki med þér fara, því Drottinn er ekki med Jsrael, öllum Efraims sonum. 8. Heldur far þú, gjör þad, vertu fastur í bardaganum! Gud kynni ad láta þig falla fyrir þínum óvinum; því hjá Gudi er vald til ad hjálpa, og til ad láta (menn) falla. 9. Og Amasía sagdi vid Gudsmanninn: hvörnig á ad fara med þær hundrad vættir, sem eg hefi géfid Jsraels her? Og Gudsmadurinn svaradi: þad er í Drottins valdi ad géfa þér enn meira enn þetta. 10. Þá adskildi Amasía frá sér, þann skara, sem til hans var kominn af Efraim, svo þeir hvurfu heim aptur á sinn stad. En þeirra reidi upptendradist mikilega vid Júda, og þeir snéru aptur á sinn stad med brennandi reidi.

11. En Amasía hressti upp hugann, og lagdi af stad med sitt fólk, og hélt í Saltdalinn, og sigradi þar syni Seirs, 10 þúsund manns. 12. Og 10 þúsundir hertóku Júda synir lifandi, og fóru med þá fram á kletta snös, og hrindtu þeim fram af kletts snösinni, svo þeir sundurbrustu allir. 13. En þeir strídsmenn, sem Amasía hafdi sendt til baka, svo þeir fóru ekki med honum í strídid, þeir gjördu áhlaup á Júda stadi, frá Samaríu allt til Betoron og feldu þar þrjár þúsundir manns, og rændu miklu herfángi.

14. En sem Amasía var kominn heim aptur, og hafdi unnid sigur á Edomítum, hafdi hann med sér gudi Seirs sona, og setti þá upp hjá sér, fyrir Gudi, tilbad þá og brendi fyrir þeim reykelsi. 15. Þá upptendradist reidi Drottins

yfir Amasía, og hann sendi til hans spámann,
sem sagdi vid hann: því leitar þú guda þeirra
þjódanna, sem ekki frelsudu sitt fólk frá þinni
hendi? 16. Og þá hann taladi vid hann,
sagdi (Amasía) vid hann: hafa menn sett þig
Konúnginum fyrir rádgjafa? hættu! hvar fyr-
ir skyldu menn slá þig í hel? þá hætti spá-
madurinn og sagdi: eg sje ad Gud hefir álikt-
ad þér tjón, þared þú gjørir slíkt og hlýdir
ekki mínum rádum.

17. Og Amasía, Júda Kóngur, rádfærdi
sig, og sendi til Jóas, Jóakas sonar, Jehú
sonar, Kóngs í Israel, og mælti: kom, lát-
um oss sjá hvør annann! 18. Þá sendi Jó-
as Israels Kóngur, til Amasía Júda Kóngs
og mælti: þyrni búskurinn á Libanon sendi til
Sedrusvidarins á Libanon og sagdi: géf dóttur
þína syni mínum fyrir konu! þá hlupu merk-
urinnar villudýr uppá Libanon og sundurtródu
þyrnibúskinn. 19. Þú hugsar: sjá! þú hefir
sigrad Edomítana, svo er þér vaxinn hugur,
ad afla þér frægdar; vertu nú heima! hvar
fyrir viltu steypa þér í ógjæfuna, svo ad þú
fallir og Júda med þér.

20. En Amasía gégndi ekki; því þad skédi
af Gudi, til þess hann ofurseldi þá, af því
þeir høfdu leitad Edoms Guda. 21. Þá fór
Jóas Israels Kóngur af stad, og þeir sáu
hvør annann, hann og Amasía, Júda Kóng-
ur, í Betsemes í Júda. 22. En Júda beid
ósigur fyrir Israel, og þeir flýdu, hvør í sitt
tjald. 23. En Jóas Israels Kóngur hertók
Amasía Júda Kóng Jóasson, Ahasía sonar, í
Bet=Semes, og flutti hann til Jerúsalem,
og reif nidur Jerúsalems múrvegg frá Efraims
hlidi allt ad hornhlidinu, 4 hundrud álnir á
leingd, 24. og tók allt gull og silfur og øll
áhøld sem voru í Guds húsi, hjá Obed=Edom,
og fjársjódu Kóngsins húss, og gisla, og fór
til baka til Samaríu.

25. Og Amasía, sonur Jóas, Júda Kóng-
ur, lifdi 15 ár eptir andlát Jóas Jóakasson-
ar, Israels Kóngs. 26. En hin ønnur saga
Amasíu, hin fyrri og sídari, hún stendur skrif-
ud í Júda og Israels Kónga bók. 27. Og
í frá þeim tíma ad Amasía vék frá Drottni,
gjørdu menn í Jerúsalem samblástur móti hon-
um, og hann flúdi til Lakis, og þeir sendu
eptir honum til Lakis og drápu hann þar. 28.
Og þeir fluttu hann á hestum og grófu hann
hjá hans fedrum í Júda stad.

## 26. Kapítuli.

Usíu ríkisstjórn. (2 Kgb. 14, 21. 22. 15, 1—7).

1. Þá tók allt fólkid Usía, en hann var 16
ára gamall, og gjørdi hann ad Kóngi, í stad
fødur hans Amasía. 2. Hann byggdi Elot,
og lagdi aptur undir Júda, eptir ad Kóngur-
inn var lagstur hjá sínum fedrum. 3. Usía
var 16 ára gamall, þá hann vard Kóngur,
og hann ríkti 52 ár í Jerúsalem. En módir
hans hét Jekolía af Jerúsalem. 4. Og hann
gjørdi þad sem rétt var í augsýn Drottins,
øldúngis eins og Amasía fadir hans hafdi gjørt.
5. Og hann leitadi Guds, svo leingi sem Sa-
karía lifdi, sem útlagdi Guds sjónir; og med-
an hann leitadi Drottins, gaf Gud honum lukku.
6. Og hann fór herfør og bardist vid Filistea,
og reif nidur Gats múra og Jabnes múra og
Asdods múra, og byggdi stadi í kríngum Asdod
og í Filistealandi. 7. Og Gud hjálpadi honum
móti Filisteum og móti Arabískum, sem bjuggu
í Gurbaal, og móti Meunítum. 8. Og Am-
monítar gáfu Usíu gáfur, og hans nafn komst
allt til Egyptalands; því hann var mikid vold-
ugur. 9. Og Usía byggdi turna í Jerúsalem
yfir hornhlidinu og yfir dalhlidinu, og í krókn-

V. 9. Turna í eydimørk: líklega fyrir fjárhirdara, ad þeir gjætu sjed útyfir mikla vídáttu.

um¹, og gjørdi þá rambyggilega. 10. Hann byggdi og turna í eydimørkinni og gróf marga brunna; því hann hafdi miklar hjardir, bædi í dølunum og á sléttlendinu, akuryrkju- og vínyrkju-menn á fjøllunum og á Karmel; því hann hafdi mætur á landyrkju. 11. Og Usía hafdi her duglegann til stríds, sem hópum saman fór í orustur, eptir tali kønnunar Jegíels skrifarans, og Maeseía forstødumanns, undir umsjón Hananía, sem var einn af Kóngsins herforíngjum. 12. Øll tala ættfedranna, sem færir voru til stríds, hún var 2 þúsund og 600. 13. Og strídsherinn þeim vid hønd var 3 hundrud þúsund og 7 þúsund og 7 hundrud, duglegir til stríds, í stríds krapti, ad hjálpa Kónginum móti fjandmanninum. 14. Og Usía fékk þeim, øllum hernum, skildi og spjót og hjálma og brinjur og boga og slaungusteina. 15. Og hann gjørdi í Jerúsalem snildar hertýgi med hagleik snildarmannanna, sem skyldu vera í turnunum og á hornunum, til ad skjóta ørvum og stórum steinum. Og hans nafn vard vídfrægt; því dásamlega var honum hjálpad, þángad til hann var ordinn voldugur.

16. En sem hann var ordinn voldugur, metnadist hans hjarta, svo hann adhhafdist illt; og hann braut á móti Drottni sínum Gudi, og gékk í Drottins musteri, til ad gjøra reyk á reykaltarinu. 17. Þá fór Asaría prestur eptir honum og med honum prestar Drottins, áttatíu duglegir menn, 18. og þeir veittu Usía Konúngi mótstødu, og søgdu vid hann: þad er ekki þitt, Usía, ad gjøra Drottni reyk, heldur prestanna, Aronssona, sem vígdir eru til ad gjøra reyk! gakk þú úr helgidóminum, því þú misbrýtur og þér er þad ekki til heidurs fyrir Gudi Drottni! 19. Þá reiddist Usía, og í hans hendi var reyk-kér til ad reykja med, og sem hann reiddist prestunum, braust út líkþrá í hans enni, í augsýn prestanna, í húsi Drottins, hjá reykaltarinu. 20. Og sem Asaría, høfudpresturinn og allir prestarnir á hann litu, sjá! þá var hann líkþrár í sínu enni, og þeir ráku hann út þadan, og hann hradadi sér líka út sjálfur, af því Drottinn hafdi sleigid hann. 21. Og svo var Usía, Konúngurinn, allt til daudadags, og bjó í spítala sem holdsveikur; því hann var útilokadur úr Drottins húsi. Og Jótam, hans son, var settur yfir Kóngshúsid, og hann dæmdi landsfólkid. 22. En ønnur saga Usíu, hin fyrri og sídari, er skrifud af Esaías, syni Amos Spámanns. 23. Og Usía lagdist hjá sínum fedrum, og menn grófu hann hjá sínum fedrum á greftrunar akri Kónganna; því þeir søgdu: holdsveikur er hann. Og Jótam sonur hans vard Kóngur í hans stad.

¹ V. 3. Múrinn á hædinni þ. e. austantil á Sion.

## 27. Kapítuli.

Jótams ríkisstjórn. (2 Kgb. 15, 32—38).

1. Jótam hafdi 5 um tvítugt þá hann vard Kóngur og ríkti 16 ár í Jerúsalem. En módir hans hét Jerúsa, dóttir Sadoks. 2. Hann gjørdi þad sem rétt var í augsýn Drottins, algjørlega, eins og Usía, fadir hans hafdi gjørt; einúngis gékk hann ekki í musteri Drottins, og enn adhafdist fólkid illt. 3. Og hann byggdi þad háa port á Drottins húsi og vann mikid ad því ad byggja múrinn á hædinni. 4. Og borgir byggdi hann á Júdafjøllum, og í skógunum byggdi hann kastala og turna. 5. Og hann átti stríd vid Kónga Ammonssona, og sigradi þá, og Ammonssynir gáfu honum á sama ári 100 vættir silfurs og 10 þúsund kor af hveiti og bygg 10 þúsund. Þetta tolludu honum líka Ammonssynir á ødru ári og á þridja. 6. Og Jótam vard voldugur, því hann gékk þá réttu leid fyrir Drottni sínum Gudi.

7. En hin ønnur saga Jótams og øll hans stríd

og hans verk, sjá! það er skrifað í bók Ísraels og
Júda Konúnga. 8. Fim um tvítugt hafdi hann
þá hann vard Kóngur og 16 ár ríkti hann í Je-
rúsalem. 9. Og Jótam lagdist hjá sínum fedr-
um, og menn grófu hann í Davídsborg. Og
Akas sonur hans vard Kóngur í hans stad.

## 28. Kapítuli.

Ríkisstjórn Akas. (2 Kgb. 16.)

1. Tvítugur var Akas, þegar hann vard
Kóngur, og 16 ár ríkti hann í Jerúsalem. Og
hann gjørdi ekki það sem rétt var í augsýn
Drottins, eins og Davíd fadir hans, 2. og
gékk á vegum Ísraels Kónga og úr steyptum
bílætum gjørdi hann sér afgudi (Baalim). 3.
Í Hinnomssona dal tendradi hann reykélsi og
brendi sína syni í eldi, líkt vidurstygd þjódanna,
sem Drottinn útrak frá Ísraelssonum. 4. Og
hann fórnfærdi og gjørdi reyk á hædum og
hólum, og undir hvørju grænu tré. 5. Þá
gaf Drottinn, hans Gud, hann í hønd Kóngs-
ins af Sýrlandi, og þeir (Sýrlendskú) unnu
hann og tóku marga af hans (lidi) til fánga,
og fóru med þá til Damaskus; og líka í hønd
Ísraels Kóngs var hann géfinn, og hann olli
honum mikills mannfalls. 6. Og Peka, son-
ur Remalía, drap, í Júda, hundrad og 20
þúsundir, á einum degi, allt menn strídsfæra,
af því þeir yfirgáfu Drottinn, Gud sínna fed-
ra. 7. Og Sikri, hetja af Efraim, drap Ma-
eseia, Kóngsins son, og Asríkam, forstødumann
húsins, og Elkana, sem gékk næst Konúngin-
um. 8. Og Ísraelssynir fluttu hertekna af
sínum brædrum, 2 hundrud þúsund konur, syni
og dætur, og miklu herfángi rændu þeir frá
þeim og fluttu herfángid til Samaríu.

9. En þar var spámadur Drottins, sem hét
Obed, hann fór á móti hernum, sem kom til
Samaríu, og mælti til þeirra: sjá! í reidi yfir
Júda hefir Drottinn, ydar fedra Gud, géfid þá
í ydar hønd, og þér hafid í grimd nidurdrepid
(fólk) medal þeirra, svo það er himinhrópandi.
10. Og nú hugsíd þér ad undiroka Júda og
Jerúsalems syni, og gjøra þá ydur þræla og
ambáttir. Er þá ekki á ydur, á ydur (segi eg)
sekt vid Drottinn ydar Gud? 11. Svo heyrid
mig nú, og sendid fángana til baka, sem þér
hafid hertekid af ydar brædrum; því upptendr-
ud er reidi Drottins yfir ydur. 12. Og þá
uppstódu menn af fyrilidum Efraims sona, As-
aría, sonur Johanans, Berekía, sonur Mesille-
móts, og Hiskía, sonur Sallums, og Amasa,
sonur Hadti, móti þeim sem komu úr strídinu,
13. og søgdu til þeirra: þér skulud ekki koma
med þá herteknu híngad, því þér ætlid ydur,
oss til sekta vid Drottinn, ad auka vorar synd-
ir og vorar sektir; því mikil er vor sekt, og reidi
er upptendrud gégn Ísrael. 14. Þá létu þeir
herthudu alla fángana og herfángid fram fyrir
herforíngjana og allan søfnudinn. 15. Og
þeir menn, sem nefndir vóru med nafni, stódu
upp og tóku vid faungunum, og alla þá nøktu
medal þeirra, klæddu þeir af herfánginu, klæddu
þá og skjæddu, mettudu og drykkjudu, og
smurdu þá, og fluttu þá á øsnum sem ørþreittir
voru, og fluttu þá til Jerikó, pálmavidar stad-
arins, til þeirra brædra, og komu svo aptur
til Samaríu.

16. Um sama leiti sendi Akas Kóngur til
Sýrlands Kónga, ad þeir veittu honum lid.
17. Líka komu aptur Edomítar, unnu sigur á
Júda og fluttu (nokkra) í burt hertekna. 18.
Og Filistear gjørdu áhlaup á stadina á lág-
lendinu og sudur í Júda (landi), og tóku Bet-
Semes og Ajalon og Gederot og Soko og
hennar dætur, og Timna, og hennar dætur, og
Gimso, og hennar dætur, og settust þar ad.
19. Því Drottinn audmýkti Júda, sakir Akas,
Kóngs í Júda, því hann gjørdi Júda (lýd)
taumlausann og braut á móti Drottni. 20.

Og Tiglat=Pilneser, kom á móti honum,
Kóngur í Assýríu, og þraungdi honum og
adstodadi hann ekki. 21. Ad sönnu rupladi
Akas Drottins hús og Kóngsins hús og höfd-
íngjana, og gaf þad Assýríu Kóngi; en þad
hjálpadi honum ekki. 22. Enn meir misbraut
hann, Kóngurinn Akas, vid Drottinn, í neyd-
inni. 23. Og hann færdi fórnir gudunum
í Damaskus, sem höfdu sigrad hann og mælti:
gudir Kónganna í Sýrlandi hjálpa þeim, eg
vil færa þeim fórnir svo þeir hjálpi mér. En
þeir urdu honum og öllum Israel ad falli.
24. Og Akas tók saman öll áhöld Guds húss,
og sneid (nokkud) af öllum áhöldum Guds
húss og lokadi dyrum Drottins húss, og reisti
sér öltaru á öllum Jerúsalems hornum. 25.
Og í öllum Júda stödum gjördi hann hædir,
til ad gjöra reyk ödrum gudum, og módgadi
Drottinn Gud sinna fedra.

26. En hans önnur saga og öll hans verk,
þau fyrri og seinni, sjá! (um) þad er skrifad í
bók Júda og Israels Kónga. 27. Og Akas
lagdist hjá sínum fedrum og menn grófu hann
í stadnum Jerúsalem; því menn báru hann
ekki í grafir Israels Kónga. Og Esekías hans
son vard Kóngur í hans stad.

## 29. Kapítuli.

Esekías kémur á aptur Guds þjónustunni. (2 Kgb. 18, 1—4).

1. Esekías hafdi fim um tvítugt þá hann
vard Kóngur, og ríkti 29 ár í Jerúsalem; en
módir hans hét Abia, dóttir Sakaría. 2. Og
hann gjördi þad sem rétt var í augsýn Drott-
ins, öldúngis eins og Davíd fadir hans hafdi
gjört. 3. Hann lauk upp dyrunum á Drott-
ins húsi, á fyrsta ári sinnar ríkisstjórnar, í fyrsta
mánudi og endurbætti þær. 4. Og lét prest-
ana og Levítana koma, og samansafnadi þeim
á strætid mót austri, 5. og sagdi vid þá: heyrid
mig, þér Levítar! helgid ydur nú og helgid
hús Drottins, ydar fedra Guds, og komid ó-
hreinindunum burt úr helgidóminum; 6. því
vorir fedur hafa misgjört og adhafst þad,
sem illt er í augsýn Drottins vors Guds, og
yfirgéfid hann, og snúid sínu augliti frá Drott-
ins bústad, og snúid vid (honum) bakinu. 7.
Líka hafa þeir lokad dyrum á framhúsinu, og
slökkt lampana, og ekkért reykverk gjört, og
brennifórnir frambáru þeir ekki í helgidómi Is-
raels Guds. 8. Þá kom reidi Drottins yfir
Júda og Jerúsalem, og hann gjördi þá ad mis-
þyrmíng, vidbjód og athlátri, eins og þér sjá-
id med ydar augum. 9. Og sjá! vorir fedur
eru fallnir fyrir sverdi, og vorir synir og dæt-
ur og konur eru, sakir þess, í fángelsi. 10.
Nú er mér í sinni ad gjöra sáttmála vid Drott-
inn, Israels Gud, ad hans brennandi reidi
snúist frá mér. 11. Mínir synir! tregdist ekki,
því ydur hefir Drottinn útvalid til ad standa
fyrir sér, ad þjóna sér, og vera hans þénarar,
sem honum gjöri reyk.

12. Þá tóku Levítarnir sig til, Mahat, son-
ur Amasai, og Jóel, sonur Asaría, af sonum
Kahatítanna; og af sonum Merarítanna: Kis,
sonur Abdis, og Asaría, sonur Jehaleels; og
af Gersonítnm: Jóa, sonur Simma, og Eden,
sonur Jóas; 13. og af sonum Elísafans: Sim-
ri og Jegiel; og af sonum Asafs: Sakaría og
Matanía; 14. og af sonum Hemans: Jehíel
og Simeí; og af sonum Jedutuns: Semaja
og Usíel. 15. Og þeir samansöfnudu sínum
brædrum, og helgudu þá, og komu, eptir bodi
Kóngsins, samkvæmt ordi Drottins, til ad hreinsa
Drottins hús. 16. Og prestarnir geingu inn í
Drottins hús til ad hreinsa, og koma burt öll-
um óhreinindum, sem þeir fundu í húsi Drott-
ins, í framhúsi Drottins húss; og Levítarnir
tóku vid þeim og komu þeim í lækinn Kidron.
17. Og þeir birjudu ad helga á fyrsta degi

fyrsta mánadar, og á áttunda degi mánadarins komu þeir í Drottins framhús, og helgudu Drottins hús í átta daga, og á 16da (degi) þess fyrsta mánadar høfdu þeir aflokid (verkinu). 18. Þá geingu þeir inn fyrir Esekías Kóng og søgdu: vér høfum hreinsad allt Drottins hús, og brennifórna altarid, og øll þess tól, og skodunarbrauda bordid og øll þess áhøld; 19. og øll þau verkfæri sem Akas Kóngur vanhelgadi, medan hann ríkti, med sínum misgjørníngum, høfum vér tilreidt og helgad; og sjá! þau eru hjá altari Drottins.

20. Þá var Esekías Kóngur snemma á fótum, og samansafnadi høfdíngjum stadarins og gékk í Drottins hús. 21. Og þeir framleiddu 7 naut, 7 hrúta, 7 lømb, og 7 geithafra, til syndafórnar fyrir ríkid og fyrir helgidóminn og fyrir Júda. Og hann skipadi sonum Arons prestunum, ad fórnfæra á Drottins altari. 22. Þá slátrudu prestarnir nautunum, og tóku blódid, og støkktu því á altarid, og slátrudu hrútunum og støkktu blódinu á altarid, og slátrudu lømbunum og støkktu blódinu á altarid. 23. Og þeir leiddu fram syndafórnar hafrana fyrir Konúnginn og søfnudinn, sem løgdu sínar hendur á þá, 24. og prestarnir slátrudu þeim, og støkktu þeirra blódi til syndalausnar á altarid, til ad fridþægja allann Israel; því fyrir allann Israel hafdi Kóngurinn bodid (ad frambera) brennifórn og syndafórn. 25. Og hann setti Levítana í Drottins hús med horn, hørpur og hljódpípur eptir bodi Davíds og Gads, Kóngsins sjáanda, og Natans Spámanns; því af Drottni skédi bodordid fyrir (munn) hans Spámanna. 26. Og Levítarnir stódu med hljódfæri Davíds og prestarnir med básúnurnar. 27. Og Esekías baud ad offra brennifórn á altarinu; og sem brennifórnin byrjadi, hófst saungur Drottins med básúnunum og hljódfærum Davíds, Israels Kóngs. 28. Og allur søfnudurinn féll fram og saungurinn hljómadi og básúnurnar gullu, þángad til brennifórninni var lokid. 29. Og þegar brennifórnin var fullgjørd, hneigdi Kóngur sig og allir sem hjá honum voru og tilbádu. 30. Og Esekías Kóngur og þeir ædstu, skipudu Levítunum ad sýngja Drottni lof med ordum Davíds og Asafs sjáanda. Og þeir súngu lof med føgnudi og hneigdu sig og tilbádu. 31. Og Esekías byrjadi svo og mælti: nú erud þér med fulla hønd komnir fyrir Drottinn, gángid nú ad og berid í Drottins hús sláturfórnina og þakkaroffrid og allar fríviljugar brennifórnir. 32. Og tala brennifórnanna sem søfnudurinn fram lét, var: 70 naut, hundrad hrútar, 2 hundrud lømb; þad allt til brennifórnar Drottni; 33. og helgud voru 6 hundrud naut og 3 þúsund sauda. 34. Einasta voru prestarnir offáir, og þeir gátu ekki fleigid allar brennifórnirnar; þá hjálpudu þeim, þeirra brædur, Levítarnir, þángad til starfanum var lokid, og þángad til þeir (adrir) prestar høfdu helgad sig, því Levítarnir høfdu verid einlægari í því ad helga sig, enn prestarnir. 35. En líka voru brennifórnirnar margar med þakkarfórnarinnar fitustikkjum og med dreypifórninni til brennifórnarinnar. Og svo vard þénustu Drottins húss rádstafad. 36. Og Esekías gladdist og allt fólkid af því ad Gud hafdi géfid gaum fólkinu; því skjótlega var þetta gjørt.

## 30. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og Esekías sendi til alls Israels og Júda, líka skrifadi hann bréf til Efraim og Manasses, ad þeir kjæmu til Drottins húss í Jerúsalem, til þess ad halda Drottni, Israels Gudi, páska. 2. Og Konúnginum og hans høfdíngjum og øllum søfnudinum í Jerúsalem var þad ad rádi, ad halda páska í ødrum

mánudi. 3. Því þeir gátu ekki haldid þá á hinum (tiltekna) tíma, þared nægilega margir prestar høfdu ei enn nú helgad sig, og fólkid var ekki samansafnad til Jerúsalem. 4. Og Kónginum og øllum søfnudinum líkadi þetta. 5. Og þeir fastsettu ad úthrópa skyldi í øllum Israel, frá Berseba til Dan, ad menn kjæmu til Jerúsalem, ad halda páska, Drottni Israels Gudi, því þeir høfdu í lángann tíma ekki haldid þá, eins og skrifad stendur. 6. Þá fóru hlauparar med bréf af hendi Konúngs og hans høfdíngja, um allann Israel og Júda, og eptir bodi Kóngsins og søgdu: þér Israelssynir, snúid ydur til Drottins, til Guds Abrahams, Isaaks og Israels, ad hann snúi sér til þeirra undan-slopnu, sem ydur eru eptir ordnir af hendi Assýríu Kónga. 7. Og verid ekki sem ydar fedur og ydar brædur sem misbrutu vid Drottinn, Gud ydar fedra, hvørs vegna hann ofurseldi þá tjóninu, eins og þér sjáid. 8. Verid ekki þverbrotnir (hardsvíradir) sem ydar fedur, gésid Drottni hønd, og komid í hans helgidóm, sem hann hefir helgad ad eilífu, og þjónid Drottni ydar Gudi, ad hans upptendrada reidi snúist frá ydur. 9. Því ef þér snúid ydur til Drottins, svo munu ydar brædur og ydar synir finna miskun hjá þeirra sigurvegurum svo þeir fái ad hverfa heim aptur í þetta land; því nádugur og miskunsamur er Drottinn vor Gud, og hann mun ekki snúa sínu augliti frá ydur, ef þér snúid ydur til hans. 10. Og svo geingu hlaupararnir frá einum stad til annars, um Efraims land og Manasse allt til Sebúlon. En þeir hlóu ad þeim og hæddu þá. 11. Samt audmýktu sig nokkrir af Asser og Manasse og Sebúlon og komu til Jerúsalem. 12. Líka kom Drottins hønd yfir Júda, ad hann gaf øllum eitt sinni, ad hlýdnast Kóngsins og yfirbodaranna bodi eptir Drottins ordi.

13. Og margt fólk safnadist til Jerúsalem til þess ad halda hátíd þeirra ósýrdu (brauda) í ødrum mánudi, harla mikill søfnudur. 14. Og þeir tóku sig til, og fluttu burt ølturin í Jerúsalem, og øll reykølturu færdu þeir burt og køstudu þeim í lækinn Kidron. 15. Og þeir slátrudu Páskalambinu þann 14da dag í þeim ødrum mánudi, og prestarnir og Levítarnir fyrirurdu sig og helgudu sig, og frammbáru brennifórn í húsi Drottins. 16. Og þeir stódu á sínum stad, eptir þeirra sid, eptir løgum Mósis, Guds mannsins, og prestarnir støkktu blódinu úr hendi Levítanna. 17. Þared margir voru í søfnndinum sem ekki høfdu helgad sig, þá tókust Levítarnir á hendur ad slatra páskalømbunum fyrir alla óhreina og helgudu þau Drottni. 18. Því fjøldi fólks, margir af Efraim og Manasse, Isaskar og Sebúlon høfdu ekki hreinsad sig, heldur átu páskalambid, ekki eptir skriftinni. En Esekías bad fyrir þeim og mælti: Drottinn! þú gódgjarni, fyrirgéf øllum, 19. þeim sem hafa hneigt sitt hjarta til ad leita Guds, Drottins, Guds sinna fedra, en ekki med helgum hreinleika! 20. Drottinn heyrdi Esekías, og fyrirgaf fólkinu. 21. Og svo héldu Israelssynir, sem voru í Jerúsalem, hátíd þeirra ósýrdu brauda í 7 daga med miklum føgnudi, og prestarnir og Levítarnir lofudu Drottinn dag eptir dag med hljódfærum Drottins lofgjørdar. 22. Og Esekías taladi vinsamlega vid alla Levítana, sem høfdu gott skinbragd á þeim føgru vísindum Drottins (þjónustu) og þeir átu hátídafórnina í 7 daga, og offrudu þakkarfórn og lofudu Drottinn, Gud þeirra fedra.

23. Og allur søfnudurinn rédi þad af ad

---

V. 17. Og helgudu þau. Adrir lesa: til ad helga þá Drottni.

halda páska adra 7 daga, og þeir héldu enn sjø daga med føgnudi. 24. Því Esekías Júda Kóngur gaf søfnudinum þúsund naut og 7 þúsund sauda og høfdíngjarnir gáfu søfnudinum þúsund naut og 10 þúsund saudi; og fjøldi prestanna hafdi helgad sig. 25. Og allur Júda søfnudur gladdi sig og prestarnir og Levítarnir og allur sá søfnudur sem kominn var frá Israel, og þeir útlendíngar sem komnir voru úr Israelslandi, og þeir sem bjuggu í Júda. 26. Og í Jerúsalem var mikill føgnudur, því frá tímum Salómons Davídssonar, Israels Konúngs, hafdi þessu líkt ekki sjest í Jerúsalem. 27. Og prestarnir og Levítarnir stódu upp, og blessudu fólkid og þeirra rødd heyrdist, og kom til hans (Drottins) heilaga bústadar í himninum.

## 31. Kapítuli.

*Enn nú um Esekías.*

1. Og sem øllu þessu var lokid, fór allur Israel, sem þar var, burt til Júda stada, og þeir sundurbrutu myndastólpana og hjuggu upp offurlundana, og rifu nidur hædirnar og ølturin í øllu Júda (landi) og Benjamíns og Efrims og Manassis, þángad til allt var afmád, og sídan fóru allir Israels synir til baka, hvør til sinnar eignar, til sinna stada.

2. Og Esekías setti presta og Levíta flokkana eptir þeirra nidurskipan, hvørn og einn eptir hans þjónustu, prestana og Levítana, til (ad annast) brennifórnirnar og þakkarfórnirnar, til þjónustu, lofsaungs og þakkargjørdar í dyrum Drottins herbúda. 3. Og Konúngurinn ánafnadi part af sínum eigum til brennifórna, til morgun og kvølds brennifórna, og til brennifórna hvíldardaganna og túnglkomudaganna og hátídanna, eins og skrifad stendur í Drottins løgmáli. 4. Og hann baud fólkinu, Jerúsalems innbúum, ad géfa prestunum og Levítunum þeirra part, svo þeir héldu vid Drottins løgmál. 5. Og sem þetta bod kom út, færdu Israelssynir (þeim) ríkuglega frumgróda kornsins, vín og vidsmjør og hunáng og allann afrakstur landsins; og tíundir af øllu komu þeir med yfirgnæfanlega. 6. Og Israels og Júdasynir, sem bjuggu í Júdastødum, komu líka med tíundir af nautum og saudum, og tíundir af því helgada, sem var helgad Drottni þeirra Gudi, og løgdu hrúgu hjá hrúgu. 7. Í þridja mánudi byrjudu þeir ad bera saman hrúgurnar og í sjøunda mánudi var því lokid. 8. Og Esekías og høfdíngjarnir komu, og sáu hrúgurnar og lofudu Gud og blessudu hans fólk Israel. 9. Og Esekías spurdi prestana og Levítana um þessar hrúgur. 10. Þá svaradi honum Asaria, høfudpresturinn af húsi Sadoks og mælti: frá því menn byrjudu ad flytja gáfur í Drottins hús, høfum vér etid og erum ordnir mettir, og høfum leyft mikid; því Drottinn hefir blessad sitt fólk, og þessi mikla hrúga er afgángurinn.

11. Og Esekías baud ad gjøra kistur í húsi Drottins. Og þeir gjørdu þær, 12. og færdu rækilega þángad gáfurnar og tíundirnar og þad helgada. Og yfir hinu sama var forstødumadur Kanaría, Levíti, og Simeí bródir hans, annar. 13. Og Jehiel og Ahasía og Nahat og Asahel og Jerímot og Jósabad og Elíel og Jesmakía og Mahat og Benaja voru umsjónarmenn, Kananía vid hønd og bródur hans Simeí, eptir rádstøfun Esekía Kóngs og Asaría yfirforstødumanns Guds húss. 14. Og Kóre sonur Jimna, Levítinn, dyravørdur ad austanverdu, var yfir Guds fríviljugu gáfum, til þess ad greida þar af Drottins upplyptíngu og hid háheilaga. 15. Og undir hans umsjón voru: Eden og Minjamín og Jesúa og Semaja, Amaría, og Sakanía, í stødum prestanna, sem eptir sanngyrni sinni, skyldu útbíta

sínum bræðrum eptir þeirra røð, stórum sem smáum, 16. auk þeirra sem uppskrifaðir voru af kallkyni, þriggja ára og eldri, øllum, sem í hús Drottins komu dag eptir dag, til að þéna að sinni sýslan, eptir þeirra niðurskipun, 17. ásamt þeim uppskrifuðu prestum, eptir þeirra ættum, og Levítunum, tvítugum og eldri, eptir þeirra sýslun og eptir þeirra niðurskipun, 18. og þeim uppskrifuðu af øllum þeirra børnum, þeirra konum, þeirra sonum og þeirra dætrum, øllum fjøldanum; því rækilega helguðu þeir sig til þjónustunnar. 19. Og hvað Arons syni áhrærði, prestana, voru menn tilsettir á landi forstaðanna, hjá sérhvørjum stað, sem nefndir voru nafni, er géfa skyldu sína hlutdeild, øllum þeim af kallkyni uppskrifuðu meðal prestanna og Levítanna. 20. Þannig fór Esekías að í øllu Júda landi, og gjørði það sem gott var og rétt og hreinskilið fyrir Drottni sínum Guði, 21. og øll sín verk, er hann byrjaði viðvíkjandi þjónustu Guðs húss og løgunum og boðorðunum, til þess (miðandi) að leita Guðs, það gjørði hann með heilu hjarta, og hann var lánsamur.

## 32. Kapítuli.

Senakeribs herfør. Esekía ríkisstjórn og andlát. (2 Kgb. 18, 13—20.)

1. Eptir þessi verk og einlægni kom Senakerib, Assýríu Kóngur, og kom í Júda land, og settist um þær víggirdtu borgir, og ætlaði sér að vinna þær. 2. Og þá Esekías sá, að Senakerib kom og hafði þá ætlun að herja á Jerúsalem, 3. tók hann það til bragðs með sínum herforíngjum og køppum, að stífla vatnsrennurnar, fyrir utan borgina, og þeir stirktu hann. 4. Og margt fólk samansafnaðist og stíblaði lyndirnar og lækinn, sem rennur miðt um landið og sagði: hvar fyrir skal Kóngurinn af Assýríu koma og finna mikið vatn? 5. Og hann hresti upp huganu, og byggði upp aptur alla niður rifna borga veggi og turna á þeim, og utan yfir (byggði hann) aðra veggi, og víggirdti Millo í Davíðs borg, og gjørði mørg vopn og skildi. 6. Og hann setti herforíngja yfir fólkið, og safnaði því að sér á það breiða stræti við borgarhliðið, talaði vinsamlega við það og mælti: 7. verið fastir fyrir og øflugir, óttist ekki og hræðist ekki Assýríu Kóng og allan þann liðsgrúa, sem með honum er; því fleiri eru með oss enn honum. 8. Með honum er holdlegur armur, en með oss Drottinn vor Guð, til að hjálpa oss og stríða vort stríð. Og fólkið reiddi sig á orð Esekía, Júda Kóngs.

9. Eptir þetta sendi Senakerib, Assýríu Kóngur, sína þénara, til Jerúsalem, (en hann sat um Lakis, og allur hans her með honum) til Esekía Júda Kóngs, og til alls Júda, sem var í Jerúsalem, þessa orðsendíng: 10. svo segir Senakerib Assýríu Kóngur: á hvað reiðið þér yður, að þér eruð (kyrrir) í Jerúsalems kastala? 11. Tælir yður ekki Esekías, og kémur því til leiðar að þér deyið af húngri og þorsta, þá hann segir: Drottinn vor Guð mun frelsa oss af hendi Assýríu Kóngs? 12. Er það ekki Esekías sem hefir aflagt hans hæðir og ølturu, og boðið Júda og Jerúsalem, og mælt: frammi fyrir einu altari skuluð þér tilbiðja og á því reyk gjøra? 13. Vitið þér ekki hvað eg og mínir feður hafa gjørt øllum landanna þjóðum? Hafa guðir þjóðanna landa, megnað að frelsa þeirra land af minni hendi? 14. Hvør er sá meðal guða þessara þjóða er mínir feður hafa afmáð, sem megnað hafi að frelsa sitt land af minni hendi, að yðar Guð skyldi megna að frelsa yður af minni hendi? 15. Og látið nú ekki Esekías tæla yður, og látið yður ei afvega leiða á þann hátt, og trúið honum ekki! því eínginn Guð allra þjóða

og Kóngsríkja orkadi því, ad frelsa af minni hendi, og af hendi minna fedra, hvørsu miklu sídur mun ydar Gud frelsa ydur af minni hendi!

16. Og enn framar tøludu hans þénarar móti Gudi, Drottni, og móti Esekías, hans þjón. 17. Og bréf skrifadi hann til hádúngar Drottni, Ísraels Gudi, og honum til mótþróa og kvad svo ad ordi: eins og gudir landanna þjóda gátu ei frelsad sitt fólk af minni hendi, svo mun ei Gud Esekía frelsa sitt fólk af minni hendi.. 18. Og þeir kølludu med hárri rødd á Gydínga máli, Jerúsalems fólk, sem stód á múrnum, til þess ad hræda þad og gjøra forvida, ad þeir gjætu nád borginni. 19. Og þeir tøludu um Jerúsalems Gud, eins og um gudi jardarinnar þjóda, sem eru (gjørdir) af manna høndum. 20. Og Esekías Kóngur og Esaías Spámadur Amosson, gjørdu bæn sína þessa vegna, og hrópudu til himins. 21. Þá sendi Drottinn Eingil, sem tortíndi køppunum, furstunum og fyrilidunum í her Assýríu Kóngs, og hann fór med sneypu til baka í sitt land. En sem hann gékk í hús síns Guds, feldu hann med sverdi, þeir sem af honum (hans lendum) voru komnir. 22. Og Drottinn hjálpadi Esekías og Jerúsalems innbúum af hendi Senakeribs Assýríu Kóngs og af hendi allra, og verndadi þá á alla vegu. 23. Og margir færdu Drottni gáfur til Jerúsalem, og Esekías Kóngi í Júda dírgripi, og eptir þad fór mikid ord af honum medal allra þjóda.

24. Um sama leiti vard Esekías daudsjúkur og hann bad til Drottins og hann (Drottinn) sagdi til hans, og gaf honum teikn. 25. En Esekías endurgaldt ekki velgjørdina vid hann, heldur metnadist hans hjarta, og yfir hann kom reidi og yfir Júda og Jerúsalem. 26. Þá audmýkti Esekías sig fyrir þad, ad hans hjarta hafdi metnast, hann og Jerúsalems innbúar, og reidi Drottins kom ekki yfir þá medan Esekías lifdi. 27. Og Esekías átti mikinn aud og nægtir, og hann gjørdi sér féhirdslur fyrir silfur og fyrir gull og fyrir díra steina og fyrir ilmjurtir og fyrir skildi og fyrir allsháttar dír áhøld, 28. og hlødur fyrir korn og vín og vidsmjør, og heyhlødur fyrir allslags fénad og fjárhús fyrir hjardirnar. 29. Stadi útvegadi hann sér, og saudfénad og nautfénad mikinn; því Gud gaf honum mikil audæfi. 30. Og hann, Esekías, stífladi þá efri rás vatnsins Gíhon, og leiddi hana undir (jørd) vestur á vid ad Davíds borg. Og Esekías var lánsamur í øllum sínum verkum. 31. Og samt yfirgaf Gud hann, svo ad hann freistadi hans, svo ad hann feingi ad vita allt sem bjó í hans hjarta, þegar sendibodarnir frá Babels furstum komu, er sendu til hans, til ad forvitnast um þau undur sem skéd voru í landinu.

32. En hin ønnur Esekías saga og um hans gudlegu verk, sjá, þad er skrifad í søgu Esaia spámanns Amossonar, í bók Júda og Ísraels Kónga. 33. Og Esekías lagdist hjá sínum fedrum, og menn grófu hann á hædinni fyrir ofan grafir Davídssona, og allur Júda lýdur og Jerúsalems innbúar gjørdu honum sæmd þá hann dó. Og Manasse hans son vard Kóngur í hans stad.

## 33. Kapítuli.

Manasse og Amons ríkisstjórn. (2 Kgb. 21, 1—8. 19—26.)

1. Manasse var 12 ára gamall, þá hann vard Kóngur, og ríkti 25 ár í Jerúsalem. 2. Og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins, eptir vidbjód þjódanna sem Drottinn rak burt frá Ísraels sonum. 3. Og hann uppbygdi aptur hædirnar, sem Esekías fadir hans hafdi niðurrifid, og reisti Baals ølturu, og gjørdi blótlunda, og tilbad allann himinsins her og þjónadi honum. 4. Og hann byggdi altari í húsi Drottins, hvar um Drottinn hafdi

talad: í Jerúsalem skal mitt nafn vera eilíflega. 5. Og hann byggdi ølturu øllum himinsins her í bádum forgørdum Drottins húss. 6. Og hann lét sína syni vada eld í dal Hinnoms sona, og fór med kukl og teikna útþýdíngar og særíngar, og setti menn til ad leita frétta af daudum og fjølkýngismenn og gjørdi margt íllt í augsýn Drottins, til ad módga hann. 7. Og hann setti þad góda bílæti, sem hann hafdi gjørt, í Guds hús, hvarum Gud hafdi sagt vid Davíd og Salómon hans son: í þessu húsi og í Jerúsalem sem eg hefi útvalid af øllum Ísraels ættkvíslum vil eg nafn mitt sé eilíflega. 8. Og eg vil ekki láta Ísraels fót framar víkja úr landinu sem eg gaf ydar fedrum, þá þeir ad eins géfa því gaum, ad gjøra allt sem eg hefi bodid þeim, allt løgmálid og setníngana og réttindin, fyrir Mósis hønd. 9. En Manasses afvegaleiddi Júda lýd og Jerúsalems innbúa, svo ad þeir breittu verr heldurenn þjódirnar sem Drottinn afmádi frá Ísraels sonum. 10. Og Drottinn taladi til Manasse og hans fólks, en þeir gáfu því ekki gaum.

11. Þá lét Drottinn yfir þá koma herforíngja Assýríu Kóngs, þeir tóku Manasses til fánga med krókum og bundu hann fjøtrum og fluttu til Babel. 12. En sem ad honum þreingdi, grátbændi hann Drottinn sinn Gud, og audmýkti síg mjøg fyrir Gudi sinna fedra, 13. og bad hann, og hann lét síg vinna med bæn, og heyrdi hans grátbeidni, og lét hann koma aptur til síns Kóngsríkis, til Jerúsalem, og Manasses kannadist vid ad Drottinn væri Gud. 14. Og eptir þad byggdi hann ytri múrvegginn á Davíds borg, vestantil vid Gíhon í dalnum, þar sem geingid er inn í fiskhlidid, og hlód hann í kríngum hædina, og gjørdi hann mjøg háann, og setti herforíngja í alla Júda (lands) rambyggilegu stadi. 15. Og hann flutti burt útlendínga gudina, og bílætid úr Drottins húsi, og øll ølturu, sem hann hafdi byggt á fjalli Drottins húss, og kastadi þeim út fyrir stadinn. 16. Og hann reisti aptur Drottins altari og fórnfærdi á því þakkarfórn og lofgjørdarfórn, og baud Júda ad þjóna Drottni Ísraels Gudi. 17. En fólkid færdi enn nú fórnir á hædunum, þó einasta Drottni sínum Gudi.

18. En hin ønnur saga Manassis og hans bæn til hans Guds og rædur sjáandanna, sem til hans tøludu í nafni Drottins Ísraels Guds, þad stendur í søgu Ísraels Kónga; 19. og hans bæn og hvørnig hann var bænheyrdur, og allar hans syndir og afbrot, og þeir stadir, á hvørjum hann byggdi hædir og setti blótlunda og bílæti, ádur enn hann audmýkti síg, sjá! þad er skrifad í søgu Hósaí. 20. Og Manasse lagdist hjá sínum fedrum og menn grófu hann í hans húsi og Amon hans son vard Kóngur í hans stad.

21. Amon hafdi tvo um tvítugt þá hann vard Kóngur, og ríkti tvø ár í Jerúsalem. 22. Og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins, eins og Manasse fadir hans hafdi gjørt; og øllum þeim gudum sem fadir hans Manasses hafdi gjørt, færdi Amon fórnir og þjónadi þeim. 23. Og hann audmýkti síg ekki fyrir Drottni, eins og Manasses fadir hans hafdi audmýkt síg, því Amon samanhrúgadi sektum. 24. Og hans þénarar samsórust móti honum og drápu hann í hans húsi. 25. En landsfólkid vann á øllum þeim samsørnu móti Amon Kóngi, og gjørdi Jósía hans son ad Konúngi í hans stad.

---

V. 11. Krókum: verkfæri sem brúkadist til ad krækja med fiska og láta í fiska vol'a. V. 19. Søgu Hósai, adrir: í søgu sjáandanna.

## 34. Kapítuli.

Jósía gudrækilega ríkisstjórn. (2 Kgb. 22, 1. 23, 30.)

1. Jósía var átta ára gamall þá hann
varð Kóngur, og 31 ár ríkti hann í Jerúsal=
em. 2. Og hann gjørdi það sem rétt var í
augsýn Drottins, og gékk á vegum fødur síns
Davíds og vék hvørki til hægri né vinstri. 3.
Og á áttunda ári sinnar ríkisstjórnar medan
hann ennú var únglíngur birjadi hann ad leita
Guds, fødur síns Davíds; og á tólfta ári byr=
jadi hann ad hreinsa Júda og Jerúsalem af
hædum og blótlundum og útskornum og steyptum
bílætum. 4. Og þeir rifu nidur fyrir hans
augum Baals ølturu, og sólbílætin, sem á
þeim stódu, hjó hann burt, og lundana og þau
útskornu og steyptu bílæti braut hann og sund=
urmoladi og dreifdi (molunum) yfir grafir
þeirra sem høfdu fært þeim fórnir. 5. Og
prestanna beinum brendi hann á þeirra øltur=
um, og hreinsadi þannig Júda og Jerúsalem.
6. Og í Manassis, Efraims og Símeons stød=
um, og allt til Naftali leitadi hann í húsun=
um allt um kríng. 7. Og hann reif nidur
ølturun og lundana, braut og sundurmoladi
(godín) goda=bílætin, og øll sólbílætin hjó
hann nidur í øllu Ísraels landi, og svo fór
hann heim aptur til Jerúsalem.

8. Og á átjánda ári sinnar ríkisstjórnar,
eptir ad hann hafdi hreinsad landid og húsid
(Drottins), sendi hann Safan Asalíu son, og
Maeseja, borgmeistara, og Jóa, Jóahassson
kansellera, til ad endurbæta hús Drottins síns
Guds. 9. Og þeir komu til høfudprestsins
Hilkia, og þeim voru feingnir þeir peníngar
sem bornir høfdu verid í Drottins hús, sem
Levítarnir, nl: dyraverdirnir, høfdu safnad af
Manasse og Efraim og af øllum Ísraels eptir=
ordnu, og af øllum Júda og Benjamín, og af
øllum Jerúsalems innbúum; 10. og þeir af=
hendtu þeim þetta, sem fyrir verkinu stódu,
sem til þess voru settir í Drottins húsi, og
þeir sem fyrir verkinu stódu, gáfu það, til þess
ad setja í samt lag og endurbæta Drottins
hús, þeim sem ad verkinu unnu, 11. þeir
gáfu það trésmidunum og byggíngamønnunum,
til ad kaupa fyrir høggna steina og vid til ad
(gjøra úr) samteingíngar bjálka og bjálka í húsin
sem Júda Kóngar høfdu skémt. 12. Og
mennirnir stundudu verkid rádvandlega. Og
yfir þá voru settir Levítarnir Jahat og Obadía,
af sonum Merari, og Sakaría og Mesullam,
af sonum Kahatíta, til umsjónar, og Levítarn-
ir kunnu allir vel á hljódfæri; 13. líka voru
þeir yfir þeim sem adfluttu, og umsjónarmenn
yfir øllum sem fyrir verkinu stódu, hvørju sem
helst verki; og af Levítunum voru (teknir) skrif=
arar, forstødumenn og dyraverdir. 14. En
sem þeir tóku upp þá peninga sem bornir høfdu
verid í Drottins hús, fann presturinn Hilkia
løgbók Drottins, sem út var géfin af Móses.
15. Þá hóf Hilkia þannig (tal sitt) og mælti vid
Safan skrifara: løgbókina hefi eg fundid í húsi
Drottins, og Hilkia fékk Safan bókina. 16.
Og Safan færdi Konúnginum bókina, og færdi
honum fregn og mælti: allt það sem þénurun=
um er trúad fyrir, það gjøra þeir. 17. Og
þeir hafa útilátid þá peninga, sem fundust í
Drottins húsi, og feingid þá þeim sem standa
fyrir verkinu, og í hønd þeirra sem ad verkinu
vinna. 18. Og Safan, skrifari, sagdi (enn
fremur) vid Kónginn og mælti: Hilkia prestur
hefir feingid mér bók, og Safan las í henni
fyrir Kónginum.

19. Og það skédi, þá Kóngur heyrdi løg=
málsins ord, ad hann reif sín klædi. 20. Og
Konúngur baud þeim Hilkia og Ahíkam syni
Safans og Abdon syni Mika, og Safan skrif=
ara, og Asaja þénara Kóngsins, og mælti:
21. farid nú og spyrjid Drottinn fyrir mig og
fyrir þá eptirordnu í Ísrael og Júda um ord

bókarinnar sem fundin er; því reidi Drottins er mikil sem yfir oss er úthellt, sakir þess vorir fedur hafa ei géfid gaum Drottins ordi, ad breita sem skrifad stendur í þessari bók. 22. Þá gékk Hilkia og þeir sem Kóngur baud, til Húldu, spákonu, ektakvinnu Sallums, sonar Takehats, sonar Hasras, sem geymdi klæda. (En hún bjó í Jerúsalem, í ødrum parti (stadarins)) og þeir tøludu vid hana á þennann hátt.

23. Og hún sagdi vid þá: svo segir Drottinn Israels Gud: segid þeim manni, sem sendi ydur til mín: 24. svo segir Drottinn: sjá! eg leidi ólukku yfir þennan stad og yfir hans innbúa, alla þá bølvun sem skrifud stendur í bókinni sem lesin var fyrir Júda Konúngi; 25. sakir þess þeir yfirgáfu mig og gjørdu reyk útlendum gudum, til ad móðga mig med øllum verkum sinna handa, svo mun mín reidi bytna á þessum stad og ekki sjatna. 26. Og til Júda Kóngs, sem sendi ydur, til ad spyrja Drottinn, segid svo til hans: svo segir Drottinn Israels Gud: þau ord sem þú heyrdir. 27. Þared þitt hjarta komst vid og audmýkti sig fyrir Gudi, þá þú heyrdir hans ord vidvíkjandi þessum stad og hans innbúum, og þared þú audmýktir þig fyrir mér, og reifst þín klædi, og grétst fyrir mér, svo hefi eg og heyrt, segir Drottinn. 28. Sjá! eg vil safna þér til þinna fedra, og þú skalt med fridi komast í þína grøf, og þín augu skulu ekki sjá alla þá ólukku sem eg leidi yfir þennan stad og yfir hans innbúa. Og þeir færdu Konúnginum svarid.

29. Þá sendi Konúngurinn og samansafnadi øllum þeim eldstu í Júda og Jerúsalem. 30. Og Konúngurinn gékk í Drottins hús, og allir menn af Júda og Jerúsalems innbúar, og prestarnir og Levítarnir og allt fólkid, smáir og stórir, og hann las fyrir þeirra eyrum øll ord sáttmálsbókarinnar sem fundin var í Drottins húsi. 31. Og Kóngurinn stód á sínum stad, og gjørdi sáttmála fyrir Drottni, ad gánga eptir Drottni, ad halda hans bodord og tilskipanir og setnínga af øllu sínu hjarta og med allri sinni sál, ad breyta eptir sáttmálans ordum, sem skrifud stódu í þessari bók. 32. Og hann lét alla sem voru í Jerúsalem og Benjamín gánga í hinn sama (sáttmála); og þad gjørdu Jerúsalems innbúar, eptir sáttmála Guds, þeirra fedra Guds. 33. Og Jósía afmádi alla vidurstygd í øllum løndum, sem tilheyrdi Israelssonum, og kom því til vegar, ad allir sem voru í Israel, þjónudu Drottni sínum Gudi; svo leingi sem hann lifdi, féllu þeir ei frá Drottni, Gudi sinna fedra.

## 35. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og Jósía héldt Drottni páska í Jerúsalem og slátradi páskalambinu á 14da degi hins fyrsta mánadar. 2. Og hann setti prestana til þeirra sýslunar, og upphvatti þá til þjónustu Drottins húss. 3. Og hann sagdi til Levítanna, sem mentudu allan Israel, sem voru Drottni helgadir: setjid þá helgu ørk í húsid, sem Salómon, Davídsson, Israels Kóngur byggdi; hún er ydur ei framar byrdi á herdum. Þjónid nú Drottni, ydar Gudi, og hans fólki Israel, 4. og verid nú reidubúnir, eptir ydar ættum, eptir ydar nidurskipan, samkvæmt Davíds reglugjørd, Israels Kóngs, og samkvæmt riti Salómons sonar hans, 5. og standid í helgidóminum, eptir greinum ydar brædra ætta, fólksins sona, og eptir nidurskipun Levítanna ættlida; 6. og slátrid páskalambi, og helgid ydur og tilreidid þad handa ydar brædrum, svo þér gjørid eptir Drottins ordi fyrir Móses. 7. Og Jósía lagdi til sonum fólksins lømb og kid (allt til páskafórnar fyrir alla

sem þar voru) að tölu 30 þúsund, og af nautum 30 þúsund, allt af Kóngsins eign. 8. Og hans yfirmenn létu sjálfviljuglega af hendi við fólkið, prestana og Levítana. Hilkia og Sakaria og Jehiel, yfirforstöðumenn Guðs húss gáfu prestunum til páskafórnar 2 þúsund og 6 hundruð (lömb) og naut 3 hundruð. 9. Og Kanania, og Semaja og Netaneel hans bræður, og Hasabia og Jegiel og Jósabað, yfirmenn Levítanna, lögðu Levítunum til páskafórnar 5 þúsund lömb, og 5 hundruð naut. 10. Svo var þjónustugjörðinni ráðstafað og prestarnir stóðu á sínum stað og Levítarnir eptir þeirra niðurskipun, eptir boði Kóngsins. 11. Og (Levítarnir) slátruðu páskalömbum og prestarnir stökktu (blóðinu) með sinni hendi, og Levítarnir fláðu (lömbin). 12. Og þeir tóku frá brennifórnina, til þess að gefa hana greinum fólksins ætta, til að frambera hana fyrir Drottinn, eins og skrifað stendur í Mósis lögmáli, og eins fóru þeir með nautin. 13. Og þeir steiktu páskalambið eptir venju, og suðu það helgaða í pottum og kötlum og pönnum, og færðu það skjótlega öllu fólkinu. 14. Og þar eptir matreiddu þeir handa sér og prestunum; því prestarnir, Aronssynir, voru við offur brennifórnarinnar og feitustikkjanna framm á nótt og matreiddu Levítarnir fyrir sig og fyrir Aronssyni, prestana. 15. Og saungvararnir, synir Asafs, voru við sína sýslan eptir boði Davíðs, og Asafs og Hemans og Jedutuns Kóngsins sjáanda, og dyraverðir í hvörjum dyrum; þeir þurftu ei að víkja frá sinni þjónustu, því þeirra bræður Levítarnir matbjuggu fyrir þá. 16. Þannig var ráðstafað allri Guðs þjónustugjörðinni á þeim sama degi, að menn slátruðu páskalömbum, og brennifórn offruðu þeir á Drottins altari, eptir boði Jósía Kóngs. 17. Og Ísraelssynir, sem þar voru, héldu páska á þeim sama tíma og 7 daga þeirra ósýrðu (brauða). 18. Og aungvir páskar höfðu verðið haldnir, sem þessir, í Ísrael, frá tímum Samúels Spámanns; og allir Ísraels Kóngar höfðu einga slíka páska haldið sem Jósía héldt, og prestarnir og Levítarnir og allur Júda og Ísrael, sem þar var, og Jerúsalems innbúar. 19. Á átjánda ári ríkisstjórnar Jósía voru þessir páskar haldnir.

20. Eptir allt þetta, þegar Jósía hafði sett húsið í lag, fór Nekó, Egyptalands Kóngur, herför móti Karkemis hjá Evfrat, og Jósía fór á móti honum. 21 Og hann sendi til hans sendiboða og mælti: hvað hefi eg við þig að sýsla Júda Kóngur? Eg kém ekki móti þér, heldur móti því fólki sem eg á stríð við, og Guð hefir álitað að láta mig hraða mér. Far þú úr vegi frá Guði, sem með mér er, svo hann gjöri þér ekki tjón! 22. En Jósía fór ekki úr vegi frá honum, heldur gjörði sig torkénnilegann, till þess (svo) að stríða við hann, og gégndi ekki Nekos tali af Guðs munni og kom til orustu í dalnum Megiddo. 23. Þá skutu skotmennirnir á Jósía, og Kóngurinn sagði til sinna þjóna: færið mig héðan, því eg er mikið sár. 24. Og hans þjónar fluttu hann úr vagninum og settu hann á annan vagn, og fóru með hann til Jerúsalem. Og hann dó og var grafinn í gröfum sinna feðra, og allur Júda lýður og Jerúsalem harmaði Jósía. 25. Og Jeremías orti sorgar ljóð eptir Jósía og allir saungmenn og saungkvinnur súngu um Jósía í þeirra harmasaung, allt til þessa dags, og gjörðu það að siðvana í Ísrael; og sjá! þessi (ljóð) eru skrifuð meðal sorgarljóðanna.

26. Enn önnur Jósía saga og hans guðlegu verk, samkvæm þeim sem skrifuð standa í Drottins lögmáli, 27. og hans saga hin fyrri og seinni, um þetta er skrifað í Ísraels og Júda Kónga bók.

## 36. Kapítuli.

Jóahas ríkir og Jóakim. Herleidíng Jóakims. Sedekías ríkir. Jerúsalem unnin. Önnur herleidíng. Leyfi ad fara heim aptur. (2 Kgb. 23, 31—36. 24, 7—18. 25, 21. Esra 1, 1. 2.

1. Og landsfólkid tók Jóahas Jósíason og gjørdi hann ad Kóngi í Jerúsalem í stad fødur hans. 2. Hann hafdi þrjá um tvítugt, þá hann vard Kóngur, og ríkti þrjá mánudi í Jerúsalem. 3. Og Egyptalands Kóngur setti hann frá vøldum í Jerúsalem og lagdi útlát á landid hundrad vættir silfurs og eina vætt gulls. 4. Og Egyptalands Kóngur gjørdi Elíakim, bródur hans ad Konúngi yfir Júda og Jerúsalem, og breytti nafni hans, (og kalladi) Jójakim, og tók Jóahas bródur hans og flutti med sér til Egyptalands. 5. Jójakim hafdi 5 um tvítugt þá hann vard Kóngur, og ríkti 11 ár í Jerúsalem, og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins síns Guds. 6. Nebúkadnesar, Kóngur í Babel, fór herfør móti honum, batt hann fjøtrum og fór med hann til Babel. 7. Nokkud af áhøldum Drottins húss flutti Nebúkadnesar líka til Babel, og lét þau í sitt musteri í Babel.

8. Enn hin ønnur saga Jójakims og hans vidbjódur, sem hann adhafdist, og þad íllt sem hann hafdi til ad bera, sjá! þar um er skrifad í bók Israels og Júda Kónga. Og Jójakin hans son vard Kóngur í hans stad.

9. Atján ára gamall var Jójakin þá hann vard Kóngur, og þrjá mánudi og 10 daga ríkti hann í Jerúsalem. Og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins. 10. En ad ári lidnu sendi Kóngur Nebúkadnesar og lét flytja hann til Babel, samt þau díru áhøld Drottins húss, og gjørdi Sedekía, bródur hans, Konúng yfir Júda og Jerúsalem.

11. Sedekías var tvítugur, þá hann vard Kóngur og ríkti 11 ár í Jerúsalem. 12. Og hann adhafdist þad sem íllt var í augsýn Drottins, síns Guds; hann audmýkti sig ekki fyrir Jeremía spámanni, (sem til hans taladi) af munni Drottins. 13. Líka gékk hann undan Nebúkadnesar Kóngi, sem hafdi látid hann sverja vid Gud, og var þverbrotinn og forherdti sitt hjarta, svo hann vildi ei snúa sér til Drottins, Israels Guds. 14. Líka samanhrúgudu høfdíngjar prestanna og fólksins misgjørdum, áþekkt øllum þjódanna vidbjód, og saurgudu Drottins hús, þad sem hann hafdi helgad í Jerúsalem. 15. Og Drottinn, Gud þeirra fedra, sendi til þeirra, fyrir hønd sinna sendiboda; hann gjørdi þad rækilega; því hann hlífdist vid sitt fólk og vid sinn bústad. 16. En þeir gjørdu Guds sendibodum hádúngar, og forsmádu þeirra ord, og gjørdu gis ad hans spámønnum, þángadtil Drottins reidi vid hans fólk þróadist svo, ad þar var eingin líkn.

17. Þá lét hann yfir þá koma Kaldeumanna Kóng, sem drap þeirra úngu menn med sverdi í þeirra helgidómi, og sparadi ekki únglínga og meyar, ekki aldrada né ørvasa; allt gaf hann í hans hønd. 18. Og øll áhøld Guds húss, stór og smá, og fjársjódu Drottins húss, og fjársjódu Kóngsins og hans høfdíngja, flutti hann allt til Babel. 19. Og þeir brendu upp Guds hús og rifu nidur Jerúsalems múra, og allar hennar hallir brendu þeir í eldi og alla díra búshluti skémdu þeir. 20. Og hann fór burt med þad sem til var af sverdum til Babel, og þar þjónudu þeir honum og hans syni, þángad til Persar fengu yfirrádin. 21. Til þess ad ord Drottins fyrir munn Jeremía rættist, þángad til landid hafdi unnid upp sín hvíldar ár, því allan eydileggíngarinnar tíma hafdi þad hvíld, þángad til 70 ár voru lidin. (3 Msb. 26, 34.)

22. Og á fyrsta ári Sýrusar *), Persa Kóngs,

*) Hebr: Kores.

til þess ord Drottins fyrir munn Jeremía skyldi rætast, vakti Drottinn anda Sýrusar Persa Kóngs, svo hann lét kunngjøra um allt sitt ríki, og líka med bréfum, og mælti: 23. „Svo segir Sýrus Persa Kóngur: øll ríki jardarinnar hefir Drottinn himinsins Gud géfid mér, og hann hefir bodid mér ad byggja sér hús í Jerúsalem í Júda landi". Hvør sem nú er medal ydar af hans fólki, med honum sé Drottinn hans Gud, og fari hann þángad.



# Esræ Bók.



## 1. Kapituli.

Sýrus leyfir Israelítunum ad snúa aptur til fødurlands þeirra og ad byggja þar musterid. Lætur skila aptur musterisins kjørgripum.

1. A enu fyrsta stjórnarári Sýrusar Persa Kóngs, svo ad uppfylltist ord Guds fyrir munn Jeremíasar, þá uppvakti Drottinn anda Sýrusar Persa Konúngs, svo ad hann lét útgánga bodskap um allt ríki sitt og líka med bréfum kunngjøra: 2. Svo segir Sýrus Persa Konúngur: øll jardarinnar ríki hefir Drottinn himnanna Gud géfid mér og skipad mér ad byggja sér musteri í Jerúsalem, sem er í Júdeu. 3. Hvør sá ámedal ydar er af øllu hans fólki, med honum mun Gud vera, hann fari upp til Jerúsalem, sem liggur í Gydíngalandi og byggi þar Drottni Israels Gudi, hús! hann er sá Gud sem er í Jerúsalem. 4. En sérhvør sá sem eptir verdur, hvør og einn í þeim stad hvar hann er útlendur, fái honum silfur, gull, fjármuni og kvikfénad, og adrar fríviljugar gáfur handa húsi Guds sem er í Jerúsalem. 5. Nú risu upp enir heldstu af ættfedrum Júdeu og Benjamíns og prestarnir og Levítarnir og allir hvørra anda Drottinn hafdi uppvakid, svo þeir færu og byggdu hús þeim Gudi, sem er í Jerúsalem. 6. En nágrannar þeirra hjálpudu þeim um áhøld úr silfri, um gull, fjármuni, kvikfénad og kjørgripi, auk alls annars, er þeir fríviljuglega gáfu. 7. Kóngurinn Sýrus lét ogsvo af hendi þau áhøld er tilheyrdu Guds húsi sem Nebúkadnesar hafdi flutt frá Jerúsalem og sett í síns Guds musteri. 8. Sýrus Persa Kóngur fékk þau í hendur Mitredans, sem var gjaldkéri, og hann taldi þau út í hendur Sóróbabels høfdíngja Júda ættkvíslar. 9. En þeirra tala var þessi: fórnarskálar úr gulli þrjátíu, þúsund fórnarskálar úr silfri, tuttugu og níu fórnar knífar. 10. Þrjátíu kønnur úr gulli, silfurkønnur minniháttar fjøgur hundrud og tíu, ønnur kér þúsund, 11. øll kérin af gulli og silfri, fim þúsund og fjøgur hundrud; allt þetta flutti Soróbabel ásamt med þeim er uppeptir fóru úr útlegdinni frá Babylon til Jerúsalem.

## 2. Kapituli.

Ættartala og tala þeirra sem fyrstir snéru aptur til Jerúsalem og Júdeu.

1. Þessir eru þeir sem í skattløndunum høfdu búid a), sem fóru úr útlegdinni, hópur útlegdar manna, hvørn Nebúkadnesar Kóngur hafdi flutt til Babylon, er snéru nú aptur til Jerú=

V. 1. *a.* Samanber 8, 20. I fyrstu líklega herteknir menn, sem (líklega og gétid er í 4 Mósb. 31, 28, 30. 37.) géfnir vóru Prestunum og Levitunum til adstodar, líklega eru þeir í 54 v. umgétnu svoleidis tilkomnir ɔ: géfnir þeim af Salómoni, samanber 1 Kóng. 9, 21.

salem og til Júdeu, hvør til sinnar borgar. 2. Þeir sem komu með Sóróbabel voru: Jesúa, Nehemia, Seraia, Reelia, Mardokai, Bilsan, Missar, Bigvai, Rehum og Baana, þetta er talan á mønnum Ísraels fólks. 3. Afkomendur Faresars, voru: tvø þúsund, eitt hundrað sjøtíu og tveir. 4. Afkomendur Sefatia: þrjú hundruð, sjøtíu og tveir. 5. Arhas afkomendur: sjø hundruð, sjøtíu og fim. 6. Fahat Móabs afkomendur, af ætt Jesúa Jóabs: tvø þúsund, átta hundruð og tólf. 7. Elams afkomendur: eitt þúsund, tvø hundruð, fimtíu og fjórir. 8. Satusar afkomendur: níu hundruð, fjørutíu og fim. 9. Sakaís afkomendur: sjø hundruð og sextíu. 10. Bani afkomendur: sex hundruð, fjørutíu og tveir. 11. Bebais afkomendur: sex hundruð, tuttugu og þrír. 12. Asgads afkomendur: eitt þúsund, tvø hundruð, tuttugu og tveir. 13. Adonikams afkomendur: sex hundruð, sextíu og sex. 14. Bigvais afkomendur: tvø þúsund, fimtíu og sex. 15. Adins afkomendur: fjøgur hundruð, fimtíu og fjórir. 16. Aters afkomendur og það af Hiskia ætt: níutíu og átta. 17. Betsais afkomendur: þrjú hundruð, tuttugu og þrír. 18. Jóras afkomendur: eitt hundrað og tólf. 19. Hasums afkomendur: tvø hundruð, tuttugu og þrír. 20. Gibbars afkomendur: níutíu og fim. 21. Ættaðir frá Betlehem: eitt hundrað, tuttugu og þrír. 22. Menn frá Netafa: fimtíu og sex. 23. Frá Anatot: eitt hundrað, tuttugu og átta. 24. Ættaðir frá Asmavet: fjørutíu og tveir. 25. Ættaðir frá Kiriat-Jearim, Kefira og Beerot: sjø hundruð, fjørutíu og þrír. 26. Ættaðir frá Rama og Geba: sex hundruð, tuttugu og einn. 27. Frá Mikmas: hundrað, tuttugu og tveir. 28. Frá Bethel og Ai: tvø hundruð, tuttugu og þrír. 29. Frá Nebo: fimtíu og tveir. 30. Magbiss afkomendur: eitt hundrað fimtíu og sex. 31. Elams afkomendur: eitt þúsund, tvø hundruð, fimtíu og fjórir. 32. Afkomendur Harims: þrjú hundruð og tuttugu. 33. Ættaðir frá Lydda, Hadid og Ono: sjø hundruð, tuttugu og fim. 34. Ættaðir frá Jerikó: þrjú hundruð, fjørutíu og fim. 35. Ættaðir frá Sena: þrjú þúsund, sex hundruð og þrjátíu. 36. Prestarnir, Jedaias afkomendur, af Jesua ætt voru: níu hundruð, sjøtíu og þrír. 37. Immars afkomendur: eitt þúsund fimtíu og tveir. 38. Afkomendur Fasurs: eitt þúsund, tvø hundruð, fjørutíu og sjø. 39. Afkomendur Harims: eitt þúsund, og seytján. 40. Levítarnir af Jesua, Kadmiels, Libni og Hodavía ætt: sjøtíu og fjórir. 41. Saungvarar af Asafs afkomendum voru: eitt hundrað tuttugu og átta. 42. Afkomendur dyravaktaranna, Salloms, Aters, Talmons, Akubs, Hatita og Sobai, til samans: eitt hundrað, þrjátíu og níu. 43. Helgidómsins þrælar, afkomendur Siha, Hasufæ Tabaots. 44. Keros, Sigaha, Fadons. 45. Lebana, Hagaba, Akubs. 46. Hagabs, Samlai, Hanans. 47. Giddels, Gahars, Raaia. 48. Resins, Nekoda, Gasams. 49. Usfa, Faseaks, Besaí. 50. Asna, Meunim, Nafusims. 51. Bakbuks, Kakkufa, Harhurs. 52. Baseluts, Mahida, Harsa. 53. Barkos, Sisera, Tamas. 54. Nesías, Hatifa. 55. Enn framar Salómons þrælar, afkomendur Sotai, Hassoferet, Feruda. 56. Jaela, Darkuns, Gidels. 57. Sefatia, Hattils, Foherets, Hasebaims, Ami. 58. Allir helgidómsins þrælar og afkomendur þræla Salómons, voru: þrjú hundruð, níutíu og tveir. 59. Þessir fóru og upp til Gyðíngalands frá Tel-Mela, Tel-Harsa, Kerub, Addan og Immer, en gátu ekki sannað uppruna sinn, hvørt þeir væru komnir af Ísrael. 60. Delaías, Tobiasar og Nekudas afkomendur: sex hundruð, fimtíu og tveir. 61. Og af presta ætt: afkomendur Habaiasar, Koss og Barsillai, sem hafði

ektad dóttur Barsillai frá Gilead og var því
talinn med þeim. 62. Þessir leitudu ad ætt-
artølu sinni, svo þeir gjætu látid innfæra nøfn
sín í ættartøluregistrid, en fundust ekki, og var þeim
þessvegna bægt frá prestsembætti. 63. Sá
Persiski landshøfdíngi (Sóróbabel) sagdi vid þá:
menn neiti ekki af því háheilaga fyrr enn
prestur er settur fyrir Urim og Tumim a).
64. Allur þessi hópur til samans var fjørutíu
og tvær þúsundir, þrjú hundrud og sextíu, 65.
auk þjóna og þjónustumeya, sem voru sjø
þúsundir, þrjú hundrud, þrjátíu og sjø, og þeir
høfdu tvø hundrud saungvara og saungkonur.
66. Hestar þeirra voru: sjø hundrud, þrjátíu
og sex, múlasnar þeirra tvø hundrud, fjørutíu
og fim. 67. Ulfaldar þeirra: fjøgur hundrud,
þrjátíu og fim, og asnar sex þúsund, sjø hundrud
og tuttugu.

68. En høfud ættfedranna, þegar þeir komu
til Guds húss í Jerúsalem, þá skutu þeir af
fúsum vilja saman til Drottins húss, svo þad
yrdi byggt ad nýu. 69. Þeir gáfu eptir efn-
um samskotseyrir til verks þessa, sextíu og einn
Darkemon í gulli b). Fim þúsund minur í
silfri c), og eitt hundrad prestaserki. 70. Og
tóku sér nú bólfestu prestarnir, Levítarnir og
hinir adrir af fólkinu, saungvararnir og dyra-
verdirnir og musterisþjónarnir hvør í sinni borg;
allir Ísraelsmenn hvør í sinni borg.

## 3. Kapítuli.

*Á laufskálahátídinni fyrsta árid var altarid byggt og árid eptir grundvøllur til musterisins lagdur.*

1. Sem nú sjøundi mánudurinn d) nálg-
adist og Ísraelsmenn voru hvør í sinni borg,
þá samansafnadist fólkid líka sem einn madur
til Jerúsalem. 2. En Jesúa Jósadaksson og
brædur hans prestarnir og Sóróbabel Sealtiels-
son og brædur hans byggdu Ísraels Gudi altari,
svo ad honum þará yrdu færdar brennifórnir
eptir því sem fyrirskrifad var í løgmáli Mósis,
þess Gudsmanns, 3. og settu þad þar sem þad
ádur hafdi stadid, (því þeir høfdu felmtur fyr-
ir þjódum (heidnu) landanna), og menn fram-
báru þar Drottni brennifórnir, morgun- og
kvøld-fórnir. 4. Þeir héldu og laufskálahá-
tídina eptir því sem fyrirskrifad var og fram-
báru daglegar fórnir eptir réttri rød, á hvør-
jum degi hátídarinnar einsog fyrirskrifad var,
5. sídan einnig þær daglegu brennifórnir og
fórnir túnglkomuhátídanna og allra þeirra há-
tída sem Drottni voru helgadar og af øllu því
sem menn fríviljuglega gáfu Drottni. 6. Frá
fyrsta deginum í sjøunda mánudinum byrjudu
þeir ad færa Drottni brennifórnir, en ekki var
enn þá búid ad leggja grundvøll musterisins.
7. Nú gáfu þeir þeim sem trén áttu ad høggva
og smidunum penínga og vistir og drykk og
vidsmjør, en þeim í Sídon og Týrus e) fyrir
ad flytja Sedrustré frá Líbanons fjallgardi
sjóleidis til Jaffa f) samkvæmt Sýrusar Persa
Kóngs leyfi þeim til handa. 8. En á ødru ár-
inu frá því þeir komu til Drottins húss í Je-
rúsalem, í ødrum mánudinum, þá byrjudu þeir
Sóróbabel Sealtielsson og Jesúa sonur Jósa-
daks og hinir adrir af brædrum þeirra, prest-
arnir og Levítarnir og allir þeir er komnir voru
úr útlegdinni til Jerúsalem, á því ad tilsetja
Levíta, tvítuga og þar yfir, til ad standa fyr-
ir byggíngu Drottins húss. 9. Og Jesúa, syn-
ir hans og brædur hans, Kadmiel og synir hans
og Júdæ synir, tóku sig saman til ad hafa um-

V. 63. *a.* Samanber 2 Mós. 28, 30. V. 69. *b.* Líklega sama sem Adarkon í 8, 27. sem var Persisk mynt, hérumbil 6 rdd. 64 ß. hvør. *c.* Mina var 22½ rdd. V. 1. *d.* Er sama sem Október hjá okkur. Laufskála hatídin í honum midjum. V. 7. *e.* Í þessum stødum eingin akuryrkja og keyptu því korn og þesshattar hjá Gydíngum fyrir Sedrustré. *f.* Jaffa líklega sama sem Joppe, stadur vid sjóinn vesturundan Jerúsalem.

sjón yfir þeim sem unnu ad byggíngu Guds musteris; Henadads ætt, synir hans og brædur og Levítarnir, 10. og nú løgdu uppbyggendurnir grundvøllinn til Jehóva musteris og létu prestana standa þar í embættisskrúda med básúnum, og Levítana, Asafs afkomendur, med bjøllum, til ad vegsama Drottinn eptir fyrirsøgn Davíds Ísraels Konúngs. 11. Og þeir skiptust til ad lofa og vegsama Drottinn, af því hann er gódur og hans miskun vid Ísrael er endalaus, og allt fólkid æpti mikid gledióp til ad vegsama Drottinn, þegar grundvøllurinn ad Drottins húsi var lagdur. 12. En margir af prestunum og Levítunum og ættfedrunum gømlu, sem høfdu sjed hid fyrra Guds hús, grétu hástøfum þegar grundvøllur þessa húss var lagdur fyrir augum þeirra, en margir æptu líka fagnadarópi fyrir gledi sakir, 13. og gátu menn ekki adgreint fagnadar- og gledi-ópid frá rødd enna grátandi, því fólkid æpti mikid hátt fagnadarópid, svo ad hljómurinn heyrdist lángt í burtu.

## 4. Kapítuli.

Gydínganna óvinir gjøra sitt til ad hindra musterisbyggínguna og þetta tekst allt ad ødru stjórnar ári Daríusar Persa Konúngs.

1. Þegar Júdæ og Benjamíns óvinir heyrdu ad þeir sem verid høfdu í útlegdinni væru ad byggja upp musterid handa Gudi Ísraels Drottni. 2. Þá gengu þeir fyrir Sóróbabel og ena yppurstu ættfedur og søgdu vid þá: vér viljum byggja med ydur, því eins og þér, viljum vér leita Drottins ydvars, og ekki høfum vér fórnum slátrad frá þeim tíma ad Assarhaddon a) Kóngur Assýríu flutti oss upp híngad. 3. Sóróbabel svaradi þeim og Jesúa og hinir adrir enir yppurstu af fedrum Ísraelítanna: vér og þér høfum ekkért saman ad sælda vid byggínguna á vors Guds húsi, því vér ætlum einir sameiginlega, ad byggja húsid Gudi Ísraels Drottni, einsog Sýrus Persa Kóngur skipadi oss. 4. Og þad skédi svo, ad landsins innbúar leitudust vid ad tálma starfi Gydínganna og svifta þá hugmód til ad byggja. 5. Líka keyptu þeir nokkra rádgjafa til ad gjøra þeirra fyrirætlan ad eingu alla æfidaga Sýrusar Persa-Kóngs til Konúngsdæmis Daríusar Kóngs í Persalandi. 6. Á ríkisstjórnar døgum Ahasverusar, líklegast Kambysis, í byrjun stjórnar hans, ritudu þeir kløgumál móti innbúunum í Júdeu og Jerúsalem. 7. Á døgum Artaxerxis ritudu Bisslam, Mitridates, Tabeal og adrir hans menn til Kóngsins, en bréfid var skrifad med aramaiskum bókstøfum og á arameiska túngu b) 8. Rehum Kóngsins umbodsmadur og skrifari hans Simsaí, skrifudu bréf vidvíkjandi Jerúsalem til Artaxerxes, sem þannig hljódadi: 9. Eg Rehum, Kóngsins umbodsmadur c) og Simsaí skrifari og adrir þeirra embættisbrædur, frá Dina d) Afarsatka e) þeir frá Tarfela, Persalandi, þeir frá Areka, f), þeir frá Babylon og þeir frá Susa g) og Daharn h) og þeir frá Elam i). 10. Og hinar adrar þjódir, sem sá mikli og vídfrægi Osnafar k) flutti burt og setti nidur í borginni Samaríu og yfirhøfud fyrir handan l) Evfrat og svo framvegis.

11. Þannig hljódadi bréfid sem þeir sendu til hans, til Artaxerxes Kóngs: þínir þjónar,

V. 2. *a.* Yngri sonur Sanheribs og hans eptirmadur — en ádur hans Jarl yfir Babiloniu sem var Assýríu skattland. V. 7. *b.* Þetta mál (sem alment kallast Kaldeiska og er skildt Hebresku og Arabisku) var talad í nokkrum parti af Gydíngalandi, Damaskus, Sýríu, Mesópótamíu og Assýríu. V. 9. *c.* Nl. í Samaríu. *d.* Assýriskir Nilendumenn í Samaríu. *e.* Bjuggu millum Persíu og Medíu. *f.* Borg í landamærum Babiloniu og Susiana. *g.* Vetrar adsetur Persisku Kónganna. *h.* Filki í Persaríki *i.* Persiskr skattland, hvar Susa var helsti stadurinn. V. 10. *k.* Þ. e. Salmanassar. *l.* Þ. e. fyrir vestan, því Persarnir bjuggu fyrir austan þad.

mennirnir fyrir handan Evfrat og svo framveigis.
12. Pad sé Konúnginum vitanlegt, ad Júdarn-
ir sem fóru uppeptir frá þér til vor, þeir eru
komnir til Jerúsalems borgar og setstir ad í þeim
óeyrdarfulla og vonda stad og eru múrar henn-
ar þegar fullgjørdir og grundvøllur hennar lagd-
ur. 13. Nú má Kóngurinn vita, ad verdi sá
stadur uppbyggdur og múrar hans fullgjørdir,
mun hvørki skattur, gjald né tollur verda borg-
adur, og loksins verda Kónginum til hnekkis.
14. Nú med því vér lifum á Kóngsins kosti og
oss ekki sæmir ad horfa uppá Kóngsins skada,
þessvegna høfum vér sendt og látid Kónginn
vita þetta, 15. svoad hann leiti í fornritum
ríkisins og munu menn þá finna í ritum þessum,
og komast ad raun um, ad stadur þessi er stad-
ur óróasamur og Kónginum og landinu hættu-
legur og ad upphlaup hefir þar verid gjørt af
undirsátum þínum í fornøld, þessvegna hefir
þessi stadur verid eydilagdur. 16. Vér látum
þessvegna Kónginn vita, ad efad stadur þessi
verdur uppbyggdur og múrar hans fullgjørdir,
þá mun landareignin hinumegin fljótsins (Ev-
frat) ekki framar verda þín eign.

17. Kóngurinn sendi aptur sinn úrskurd til
Rehum, sem var Kóngsins Jarl, og Simsai
skrifarans og til hinna annara embættisbrædra
hans, til þeirra sem bjuggu í Samaríu, og til
hinna annara fyrir handan fljótid, gódar óskir!
og svo framvegis. 18. Bréf ydar sem þér send-
ud til vor, hefir mér verid lesid í minni áheyrn,
19. og eg hefi skipad ad menn leiti, og þeir
hafa fundid ad stadur þessi frá fornøld hefir sýnt
Kónginum mótþróa og uppreisn og fráfall ver-
id gjørt í honum, 20. og ad voldugir Konúng-
ar hafa verid í Jerúsalem og høfdíngjar yfir
øllu landinu hinumegin fljótsins, og skattur, gjøld
og tollar verid þeim goldnir. 21. Utgéfid
þessvegna þá skipan, ad menn þessir hætti og
byggji ekki þennann stad, þángad til úrskurdur
verdur géfinn af mér. 22. Og verid varkár-
ir í því ad breita útaf þessu, ad þetta tjón
ekki skuli ítrekast ríkinu til skada.

23. Nú sem þetta bréf Artaxerxis Kóngs
kom til Rehums og Simsai skrifarans og
þeirra embættisbrædra, fóru þeir í skindíngu til
Jerúsalem til Gydínganna og hindrudu þá med
valdi og herlidi. 24. Og strax hætti bygg-
íngin á Drottins húsi í Jerúsalem, og þessi
tálman varadi allt ad ødru ríkisstjórnar ári
Daríusar Persa Konúngs.

## 5. Kapituli.

Spámennirnir Haggaí og Sakkarías hvetja til ad halda áfram byggíngu musterisins og er Daríusi skrifad þar um.

1. Og Spámadurinn Haggaí og Spámad-
urinn Sakkarías Iddoson tøludu í Israels
Guds nafni til Gydínganna sem voru í Júdeu
og í Jerúsalem. 2. Og strax bjuggu þeir
Sóróbabel Salatíelsson og Jesúa Jósadaksson
sig til og fóru ad byggja Drottins hús í Jerú-
salem og Guds þessa Spámenn med þeim,
sem adstodudu þá. 3. Á þeim tíma kom til
þeirra Tatnai landshøfdínginn hinumegin fljóts-
ins Star-Bosnai og þeirra embættisbrædur
og mæltu svofeldum ordum vid þá: hvør hef-
ir skipad ykkur ad byggja þetta hús og full-
gjøra þennann múr. 4. Sídan søgdum vér
þeim ennframar hvør væru nøfn þeirra manna
sem byggdu þessa byggíngu. 5. En auga
Drottins var yfir øldúngum Gydínganna og
ekki hindrudu þeir þá, þángad til úrskurdur
Daríusar kom, þá bréf kom aptur til þeirra.
6. Þannig hljódar bréfid sem ad Tatnai lands-
høfdíngi hinumegin fljótsins og Star-Bosnai
og þeirra félagar frá Afarsaka, sem er fyrir
handan fljótid, sendu til Daríusar Kóngs. 7.
Bréfid sendu þeir til hans og var þannig í
því skrifad: hvørskyns heill Daríusi Konúngi!

8. Það sé Konúnginum hérmed géfid til vitundar: ad vér høfum ferdast til Júdeu = Skattlands, til húss ens mikla Guds og er þad uppbyggt af stórum steinum og bjálkar veggjanna tilbúnir og vinna menn kostgjæfilega ad verkinu, og verdur því vel framgéngt. 9. Jafnframt spurdum vér øldúngana og mæltum þannig vid þá: hvør hefir géfid ydur þá skipan ad byggja þetta hús og ad fullgjøra þess múra. 10. Líka spurdum vér þá um nøfn sín til ad kunngjøra þér þau, og svo ad vér gjætum skrifad nøfn þeirra sem eru í tølu þeirra fyrirlida, 11. og var meiníng svars þess er þeir gáfu á þennann hátt: vér erum dýrkendur Guds himinsins og jardarinnar og byggjum þad hús sem fyrri hefur byggt verid, fyrir mørgum árum, og byggdi þad voldugur Israels Konúngur og umgirdti þad. 12. En eptir ad forfedur vorir høfdu egnt Drottinn himinsins til reidi, ofurgaf hann þá í hendur Nebúkadnesars Kóngs í Babel, ens Kaldeiska, hvøred nidurbraut þetta musteri og flutti fólkid til Babylonar. 13. En á fyrsta ári Sýrusar Kóngs í Babylon útgaf Sýrus Kóngur þá skipan ad byggja þetta Guds musteri. 14. Og svo kérin sem tilheyrdu Guds húsi, sem voru úr gulli og silfri, sem Nebúkadnesar hafdi tekid úr musterinu sem var í Jerúsalem og flutt til musterisins í Babylon, þau lét Sýrus Kóngur taka útúr musterinu í Babylon og voru þau afhendt Sesbasar a) ad heiti, sem hann setti þar til landshøfdíngja. 15. Og hann sagdi honum: tak þessi kér, far þú upp þángad og flyttu þau í musterid, í Jerúsalem, og byggdu Guds hús á sínum stad. 16. Og jafnsnart fór þessi Sesbasar og lagdi grundvøll til þessa Guds húss í Jerúsalem og upp frá þeim tíma og allt híngad til høfum vér verid ad byggja, en høfum enn nú ekki lokid því. 17. Og nú, ef Kónginum svo þókknast, þá láti hann leita í fjárhirdslu Kóngsins sem er í Babylon, hvørt ekki er svo, ad bodord sé útgeingid frá Sýrusi Kóngi, ad byggja þetta Guds hús í Jerúsalem, og láti Kóngurinn oss svo vita vild sína.

## 6. Kapítuli.

*Daríus géfur leifi til áframhalds byggíngarinnar. Musterid er vígt.*

1. Sídan útgaf Daríus Kóngur skipan, ad leitad væri í ritasafni því, sem lagt hafdi verid til geimslu þar sem fjárhirdslan er í Babylon. 2. Og fundu menn í Ekbatana b), Kóngssetrinu í skattlandinu Medíu, handrit, og stód þarí þessi minnisgrein ritud: 3. á fyrsta ári Sýrusar Kóngs útgaf Sýrus þá skipan: hús Drottins í Jerúsalem skal uppbyggjast til musteris, sem sá stadur, hvar fórnfæríngar skulu tídkast og hárí grundvellir (gjørast), hædin sé 60 álnir og breiddin sextíu álnir. 4. Þrjú løg af stórum steinum og eitt lag af tré, og skal kostnadurinn takast frá Kóngsins húsi. 5. Líka skulu þau kér í Guds húsi, sem eru úr gulli og silfri, sem Nebúkadnesar flutti úr musterinu í Jerúsalem til musterisins í Babylon, skilast aptur og flytjast til musterisins, sem er í Jerúsalem, til síns fyrri stadar og færast í Guds hús. 6. Þessvegna skulud þér Tatnai landshøfdíngi hinumegin fljótsins, Star = Bosnai og ydar embættisbrædur frá Afarsaka, sem ad eru hinumegin fljótsins, nú halda ydur þar frá. 7. Skulud þér láta menn (í fridi) vinna ad þessu Guds húsi, yfirmenn Gydínganna og øldúngar þeirra, meiga byggja hús Drottins á sínum fyrri stad. 8. Þvínærst gjøri eg þá skipan vidvíkjandi þeirri adstod er ydur ber ad veita øldúngum Gydíng-

V. 14. *a.* Svoleidis meina menn ad Sóróbabel hafi verid kalladur í Persíu. V. 2. *b.* Høfudborgin í gømlu Medíu, og sumaradsetur Persísku Kónganna.

anna til byggíngar þessa Guds húss af eign=
um Kóngsins, nefnilega tekjum af landinu hinu=
megin (fljótsins) skal kostnadurinn tafarlaust
takast handa mønnunum til þessa, svo verkid
ekki dragist. 9. Og hvad medþarf, naut, hrúta
og lømb til brennifórna handa himinsins Herra,
hveiti, salt, vín og vidsmjør, eptir fyrirsøgn
prestanna í Jerúsalem, þad skal látast þeim í
tje dag eptir dag án tafar, 10. svo ad
Drottni himinsins verdi frambornar fórnir til
sœtleiks ilms og bedid verdi fyrir lífi Kóngsins
og sona hans. 11. Sømuleidis hefi eg bod=
id, ad ef sá er nokkur sem breitir á móti
þessari skipun, þá skuli bjálki takast úr húsi
hans, reisast upp, og hann krossfestast a) á hon=
um og hús hans þessvegna verda ad moldar=
rúst. 12. En sá Gud sem þar býr, hann
fyrirfari sérhvørjum þeim Kóngi og þjód, sem
útréttir hønd sína til ad breita þessu edur rífa,
nidurbrjóta þetta Guds hús í Jerúsalem; eg
Daríus hefi gefid þetta bodord: ad menn kost=
gjæfilega fullnægi því.

13. Tatnai landshøfdíngi hinumegin fljótsins
og Star=Bosnai og þeirra félagar hlýddu þessu
kostgjæfilega, vegna þessa bodskapar Daríusar
Kóngs. 14. Og ølduúngar Gydínganna héldu
áfram byggíngunni og fékk þad gódann framgáng
eptir spádómi spámannsins Haggais og Sakari=
asar Iddossonar og byggdu þeir og luku bygg=
íngunni eptir bodi Guds Israels, og eptir
skipan Sýrusar og Daríusar og Artaxerxis
Persa Konúnga. 15. Og var húsi þessu lok=
id á þridja degi í mánudinum Adar b) á
sjøtta ríkisstjórnar ári Dariusar Kóngs, 16. og
héldu Israelsmenn, prestarnir og Levítarnir og
hinir adrir af þeim herleiddu, vígslu hátíd þessa
Guds húss, med føgnudi. 17. Og frambáru
sem vígslufórn þessa Guds húss, hundrad
naut, tvø hundrud hrúta, fjøgur hundrud lømb,
og 12 geithafra, sem syndafórn fyrir alla Isra=
els menn, eptir Israels œttkvísla tølu. 18.
Og tilsettu presta eptir ákvedinni rød og Levíta
eptir ákvedinni rød til Guds þjónustunnar í
Jerúsalem eptir fyrirsøgn Mósis bókar c).

19. Þeir sem úr herleidíngunni voru komnir
héldu páska á fjórtánda degi í fyrsta mánud=
inum. 20. Því ad prestarnir og Levítarnir,
hvør og einn þeirra, hafdi hreinsad sig, svo
þeir voru allir hreinir og þeir slátrudu páska=
lambinu fyrir alla þá, sem í útlegdinni høfdu
verid, fyrir brœdur þeirra, prestana, og fyrir
sig. 21. Sídan neittu Israelsmenn sem úr
útlegdinni voru komnir og allir sem høfdu ad=
skilid sig frá þeim óhreinu þjódum landsins á=
medal þeirra, til ad leita Drottins, Israels
Guds. 22. Sídan héldu þeir í sjø daga hátíd
enna ósýrdu brauda med føgnudi, því Gud
hafdi gladt þá og snéri hjarta Assýríu Kon=
úngs til þeirra, til ad styrkja høndur þeirra vid
byggíngu Guds húss, Guds Israels.

## 7. Kapituli.

*Esra fær skriflega skipan hjá Xerxes til gjaldkér=
ans, ad hann láti hann fá ýmislegt er hann þurfi
til Guds þjónustunnar.*

1. Á ríkisstjórnardøgum Artaxerxis d)
Persa Kóngs var Esra sonur Seraia, sonar
Asaria, sonar Hilkia, 2. sonar Sallums, son=
ar Sadoks, sonar Ahitubs, 3. sonar Amaria,
sonar Asaria, sonar Meraiots, 4. sonar Ser=
ahia sonar Usfi, sonar Buki, 5. sonar Abis=
ugs, sonar Fineas, sonar Eleasars, sonar Ar=
ons ens œdsta prests. 6. Þessi er sá Esra,
sem fór frá Babýlon, madur vel ad sér í Mósis

V. 11. *a.* Krossfesting var og tídkud hjá Persum. V. 15. *b.* Gydíngarnir reiknudu mánudina eptir túnglkomum, þann=
ig byrjadi manudurinn Adar á nýu túngli í Martió og endadi á nýu túngli í Aprilis. V. 18. *c.* 4 Mos. 3, 6.
V. 1. *d.* Hér sama sem Xerxes, sonur og eptirmadur Dariusar.

løgum, sem Gud Ísraels Drottinn hefir géfid og Kóngurinn veitti honum allar hans bænir, fyrir tilstilli Guds sem var yfir honum. 7. Líka fóru nokkrir af Ísraelsmønnum og af prestunum og Levítunum og saungvurunum og dyravørdunum og musterisþjónunum upp til Jerúsalem á sjøunda ári Artaxerxis Kóngs. 8. Og þeir komu til Jerúsalem á fimta mánudi þessa sjøunda árs Kóngsins. 9. Því á fyrsta degi ens fyrsta mánadar, þá var byrjud ferdin frá Babýlon, og á fyrsta degi ens fimta mánadar, kom hann til Jerúsalem, fyrir ena gódu Guds hønd, sem yfir honum var. 10. Því Esra hafdi snúid sínu hjarta til ad ransaka løgmál Drottins og til ad framfylgja því og fræda Ísraelsmenn í løgum og rétti.

11. Þannig hljódar bréfid sem ad Kóngurinn Artaxerxes fékk Esra, þeim vitra presti, sem var lærdur í því er vidvék bodordum Guds og setníngum Ísraelsmanna. 12. Artaxerxes Kóngur Konúnganna (heilsar) Esra þeim fullkomlega vitra presti í løgmáli Guds himinsins og svo frv. 13. Þad er minn vilji, ad sérhvør í ríki mínu, af Ísraels lýd, svo vel prestar sem Levítar, sem fús er til ad fara til Jerúsalem med þér, ad hann fari. 14. Þessvegna med því ad þú ert sendur af Konúnginum og hans sjø rádgjøfum til ad hafa umsjón yfir Júdeu og Jerúsalem eptir því løgmáli Guds þíns, sem þú hefir í høndum, 15. og til ad flytja þad silfur og gull sem Kóngurinn og hans rádgjafar fríviljuglega hafa géfid Ísraels Gudi, sem er í Jerúsalem búandi, 16. og allt silfur og gull sem finnst í Babýlons skattlandi, og þær fríviljugu gáfur fólksins, og prestanna fríviljugu gáfur til húsins Guds þeirra í Jerúsalem; 17. þá kaup kostgjæfilega fyrir peninga þessa, naut, hrúta og lømb, og þar til heyrandi matfórnir og drykkjarfórnir og framber þad á altarid, sem er í húsi ydvars Guds, í Jerúsalem. 18. Og þad sem þér og brædrum þínum þóknast ad gjøra vid leifar silfursins og gullsins, þá gjørid einsog Gudi ydar þóknast, 19. og kérin sem þér munu verda feingin til Gudsþjónustunnar í Guds húsi, þau skaltu aptur setja frammi fyrir Drottinn í Jerúsalem; 20. en hitt annad, sem medþarf til útgjalds í húsi Guds þíns, þad skal takast af Kóngsins fjárhirdslu a). 21. Eg Kóngur Artaxerxes géf þá skipan frá mér til allra gjaldkéra, sem eru hinumeigin fljótsins, ad hvørs sem presturinn Esra æskir, þessi vitríngur í løgmáli Guds himnanna, þad skal tafarlaust veitast honum, 22. allt ad einu hundradi talenta b) silfurs og allt ad einu hundradi Kórum af hveiti c) og eitt hundrad Bat víns d) og eitt hundrad Bat vidsmjørs, en Salt e) eptir velþóknan, 23. allt sem er samkvæmt bodum Guds himinsins, þad skal tafarlaust flytjast til húss Guds himnanna, svo ad hann láti ekki reidi sína koma yfir ríki Kóngsins og hans afkomenda; 24. og øllum ydur sé vitanlegt, ad á alla presta, Levíta, saungvara, dyraverdi, Levítanna þjóna og adra helgidómsins þjóna, leifist ekki ad leggja toll, gjøld, edur skatt. 25. En þú, Esra! eptir þeirri þekkíngu, sem þú hefir á Drottni þínum, þá tilset þú dómara og fóveta, (svo þeir séu gjørdarmenn ámedal alls fólksins, sem er hinumeigin vid fljótid), af øllum þeim sem kunnugir eru løgmáli Drottins, Guds þíns, en uppfræd þá sem þarí eru fákunnandi. 26. Og sérhvør sem ekki er hlýdinn løgmáli Drottins þíns og Kóngsins, á þá skaltu leggja straff er sambodid sé því, sem hann hefir gjørt, annadhvørt

---

V. 20. *a.* Einsog sagt er ad framan í 8, 6. V. 22. *b.* Sérhvørt Talentum var 3000 helgidóms siklar, sem eptir Persiskum reikningi verdur sama sem 625 rbd. silfurs, sjá Xen: Anab: 1, 5, §. 6 *c.* Kór var mælir á þurrum vørum, hérumbil 60 skeppur. *d.* Bat var 48 pottar. *e.* Saltid var brúkad vid fórnir.

til dauda, edur til útlegdar, edur til fjár útláta, edur til fángelsis.

27. Lofadur veri Gud Drottinn fedra vorra, sem inngaf þad hjarta Kóngsins, ad gjøra dýrdlegt hús Drottins í Jerúsalem, 28. og sem hneigdi til mín nád Kóngsins, rádgjafa hans, høfdíngja og hershøfdíngja; 29. en eg framfylgdi verkinu fyrir adstod Guds Drottins er yfir mér var, og eg samansafnadi þeim helstu af Ísraelsmønnum til ad fara med mér uppeptir.

## 8. Kapítuli.

*Ferd Esras til Jerúsalem.*

1. Þessir eru þeir helstu af ættfedrunum sem létu rita nøfn sín í ættartølubækurnar og sem uppeptir fóru med mér undir ríkisstjórn Artaxerxis Kóngs í Babylon. 2. Af Fineasars afkomendum Gersom, af Ítamars afkomendum Daniel, af Davíds afkomendum Hattus. 3. Af Afkomendum Sehania og af Farosis afkomendum Sakaria og kallmenn sem med honum vóru, tølduft eitt hundrad og fimtíu. 4. Af Fahat Móabs afkomendum Elioeni Serahiason og med honum tvø hundrud kallmanna. 5. Af afkomendum Sehania sonar Jahasíels og med honum þrjú hundrud af kallmønnum, 6. og af afkomendum Adins: Ebed sonur Jónatans og med honum fimtíu kallmanna; 7. af Elams afkomendum Esaias Athaliuson og med honum sjøtýgir kallmanna. 8. Af Safatia afkomendum Sebadia Mikaels son og med honum áttatíu kallmanna. 9. Af Jóabs afkomendum: Obadia Jehielsson og med honum tvø hundrud og átján kallmenn. 10. Af afkomendum Selómits: sonur Jósifia og med honum eitt hundrad og sextíu kallmanna. 11. Af Bebai afkomendum Sakaria Bebaison og med honum tuttugu og átta kallmenn. 12. Af Asgads afkomendum Johanan Hakatansson og med honum eitt hundrad og tíu kallmenn, 13. og loksins af Adonikams afkomendum: og eru þessi nøfn þeirra Elifelet, Jeguel, Semaia og med þeim sextíu kallmanna. 14. Af Bigvais afkomendum: Utai og Sabbud og ásamt þeim sjøtíu kallmanna. 15. Þessum samansafnadi eg vid fljót þad er rennur til Ahava, og láum þar í herbúdum í þrjá daga og sem eg gaf gaum ad fólkinu og prestunum, þá fann eg þar engann af Levi afkomendum; 16. eg sendi þessvegna Elieser, Ariel, Semaia, Elnatan, Natan, Sakaría, Mesullam þá helstu, Joarib og Elnatan, fróda menn; 17. og eg lét skipan útgánga til Iddo, ens ypparsta í héradinu Kaffea og eg lagdi þeim ord í munn, er þeir skyldu segja vid Iddo og brædur hans, sem vóru helgidómsins þjónar á þessum stad, ad hann útvegadi oss þjónustumenn handa Guds húsi. 18. Fyrir tilstilli Guds vors, ens góda, sem var yfir oss, sendu þeir oss Serebia vitran mann af Maheli afkomendum, son Levi, son Ísraels, ásamt med hans sonum og brædrum, átján; 19. Hasabia og med honum Jesaia af Merari afkomendum, ásamt sonum hans og brædrum, tuttugu; 20. af helgidómsins þjónum, sem Davíd og hans høfdíngjar høfdu sett til ad þjóna Levítunum, tvø hundrud og tuttugu, sem allir vóru nefndir med nafni. 21. Sídan lét eg boda þar føstu vid fljótid Ahava, til þess ad vér skyldum audmýkja oss fyrir Gudi vorum, og bidja hann um farsæla ferd fyrir oss, børn vor og allar vorar eigur, 22. því eg fyrirvard mig ad bidja Kónginn um her og riddaralid oss til verndar fyrir óvinum á leidinni, því vid høfdum sagt Kónginum: ad Guds hønd væri yfir øllum þeim sem leitudu hans til ens góda, en makt hans og reidi yfir øllum sem yfirgjæfu hann. 23. Vér føstudum þessvegna og bádum til Guds vors, og hann bænheyrdi oss. 24. Sídan tók eg tólf frá, af þeim helstu prestum Serebia, Hasabia og tíu af þeirra brædr-

um med þeim; 25. og eg útvóg þeim silfur og gull og kér, gáfur húss Guds vors, sem Kóngurinn hafdi géfid og hans rádgjafar og hans gjædíngar og allur Israel, sem var þar nálægur; 26. og eg vóg í hendur þeirra silfur, sex hundrud og fimtíu talentur, og silfur kér fyrir hundrad talentur, og hundrad talentur í gulli. 27. Kønnur af gulli, tuttugu þúsund Darkemona jafngyldi a), tvø kér af kopar, sem vóru næsta føgur og vidlíka matin og gull; 28. og eg sagdi vid þá, þér erud Gudi helgadir og svo kérin eru helgidómur og silfrid og gullid eru fríviljugar gáfur til Guds, Drottins fedra ydvarra. 29. Vakid og vardveitid þetta þángadtil þér vegid þad aptur út í augsýn enna ædstu presta og Levítanna og enna helstu ættfedra Israels í Jerúsalem, í høllum Guds húss. 30. Prestarnir og Levítarnir tóku vid silfrinu og gullinu og kérunum eptir vigt, til ad flytja þad til Jerúsalem til húss Guds vors. 31. Á tólfta deginum í þeim fyrsta mánudi løgdum vid upp frá ánni Ahava á leid til Jerúsalem og verndadi Guds vors góda hønd oss fyrir óvina høndum og launsátrum b). 32. Þegar vid vorum komnir til Jerúsalem, hvíldustum vid þar í þrjá daga, 33. en á fjórda deginum afhendtum vid silfrid, gullid og kérin í musteri Guds vors eptir vigt í høndur Meremots sonar Uria prests, og Eleasars sonar Fineasars sem var honum vid hønd, og Levitanna Josabads Jesúasonar og Noadía Binnuisonar, sem þeim vóru vid hønd, 34. med tølu og vigt á øllu og var vigtin samstundis uppskrifud. 35. Utlagarnir sem nú komu heim aptur færdu Israels Drottni brennifórnir, tólf naut fyrir allan Israel, níutýgir og sex hrúta, sjøtýgir og sjø lømb, tólf hafra sem syndafórn — øllu var þessu offrad Gudi. 36. Sídan afhendtu þeir bodord Kóngsins landshøfdíngjum hans og lendum mønnum hinumegin fljótsins, og veittu þeir fólkinu og Guds húsi adstod sína.

## 9. Kapítuli.

*Israels menn, jafnvel prestar og Levítar høfdu tekid sér útlendar konur. Esra gjørir ydran fólksins vegna.*

1. Þegar øllu þessu var lokid komu þeir yppurstu til mín og søgdu: Israels lýdur og prestarnir og Levítarnir hafa ekki haldid sér frá þjódum þeirra landa sem óhrein eru c), frá Kananítum, Hethítum, Feresítum, Jebúsítum, Ammonítum, Móabítum, Egyptskum og Amorítum. 2. Því þeir hafa gipt sig þeirra dætrum og sonu sína og samblandad enum helga ættstofni vid landsins innbúa, og nokkrir af þeim yppurstu og yfirmønnunum hafa ordid fyrstir til þess. 3. Þegar eg heyrdi þetta, reif eg kyrtil minn, og yfir-høfn, reitti hár af høfdi mér og skégg og sat frá mér numinn. 4. Nú søfnudust til mín allir, sem óttudust ord Israels Guds, sakir misgjørdar útlegdar mannanna; en eg sat óttasleginn allt til kvøldfórnar (tímans) d). 5. Þegar ad kvøldfórninni var komid, stód eg upp frá føstu minni med rifnum kyrtli og yfirhøfn, féll á kné og fórnadi høndum mínum til Guds, Drottins míns. 6. Og eg sagdi: Gud minn! eg fyrirverd mig og blygdast mín ad upplypta til þín, Drottinn minn! augliti mínu, því syndir vorar taka upp yfir høfud vor, og eru svo stórar, ad þær ná til himins. 7. Allt frá døgum fedra vorra vorum vér í mikillri sekt allt til þessa dags og vegna vorra synda erum vér ofurgéfnir, Kóngar vorir og prestar vorir í hønd Kónga hinna annara landa, undir sverdid, til fángélsis, herfángs og blygdunar, eins og á þessum degi. 8. Og nú fyrir skémstu hefur miskun skéd af Gudi Drottni

V. 27. *a.* Sjá 2, 69. V. 31. *b.* Leidin frá Babylon til Jerúsalem lá um hættulega eydimørku, hvar reisarar uppihéldu sér. V. 1. *c.* Samanber 5 Mós. 7, 1 — 3. V. 4. *d.* Samanber 2 Mós. 29, 39. 41. og 3 Mós. 23, 4.

vorum, þared hann hefir látid eptir verda leifar
af oss og veitt oss fótfesti á þeim heilaga
stad, svo ad Gud vor upplýsti vor augu og léti
oss litla stund lifna vid aptur í ánaud vorri.
9. Því ánaudugir erum vér og í ánaud vorri
hefir Gud vor ekki yfirgéfid oss, heldur hneigt
til vor rád PersaKonúnga, svo þeir þirmdu
lífi voru, svo ad vér feingjum uppbyggt hús
Guds vors og vidrétt rústir þess, og gafu
oss umgirdtann stad í Júdeu og í Jerúsalem.
10. En hvad eigum vér nú ad segja, vor
Gud! eptir allt þetta? því vér høfum yfirgéf-
id þín bod, 11. sem þú hefir géfid oss fyrir
hønd þinna þjóna Spámannanna, er þú sagdir:
þad land, til hvørs þér farid til ad inntaka
þad, er ordid óhreint vegna afgudadýrkunar
fólksins í landinu, vegna vidurstyggilegleika þess
sem þeir hafa fyllt þad med frá einum enda
til annars, med þeirra saurugleika. 12. Þess
vegna skulud þér ekki géfa dætur ydar sonum
þeirra, og synir þeirra ekki taka sér dætur
ydar og ekki skulud þér æfinlega leita þeirra
sælu og velvegnunar, svo ad þér verdid vold-
ugir og fáid ad njóta landsins gjæda og eptir-
látid þad sonum ydar æfinlega úr því. 13.
Eptirad nú allt þetta er komid yfir oss, vegna
vorra vondra verka og vorra stóru yfirsjóna,
(því þú, Drottinn vor, hefir audmýkt oss
minna heldurenn vorar syndir hafa tilunnid
og sømuleidis veitt oss frelsan). 14. Hvørt
skyldum vér þá snúa aptur til ad rjúfa þín rétt-
indi og teingjast hjúskapar bøndum vid þessar
óhæfu þjódir? munt þú ekki reidast oss og
því nær gjøreyda oss, svo einginn verdi ept-
ir og frelsist? 15. Gud, Drottinn Israels! þú
ert réttlátur, því enn þá til þessa dags hefir
þú eptirskilid leyfar af oss — sjá! vér stønd-
um fyrir þínu augliti í vorum ávirdíngum, því
vegna þeirra fær einginn stadist fyrir þér.

## 10. Kapituli.

Gydíngarnir skilja sig vid þær útlendu konur og børn
þau er þeir høfdu vid þeim átt.

1. Og sem nú Esra bad og játadi sig grát-
andi og framfallandi fyrir framan Drottins hús,
þá safnadist til hans mikill skari Israelsmanna,
kallar og konur og børn og grét (þá) fólkid
mikilega. 2. En Sechania Jehielsson af Elams
afkomendum, svaradi og sagdi vid Esra: vér
høfum syndgad móti Drottni, ad vér tókum
oss útlendar konur af þessa lands þjódum; nú
er þessvegna von um Israel (ad hann bæti sig).
3. Og nú skulum vér gjøra sáttmála vid Drott-
inn vorn, ad reka burtu allar kvinnur og børn-
in vid þeim, eptir rádum herra míns a) og
þeirra sem óttast skipanir Guds vors, svo ad
løgunum verdi hlýdt. 4. Stattu nú upp því
þetta liggur þér á herdum, og vér viljum hjálpa
þér, vertu sterkur og framkvæm þetta. 5. Og
Esra stód upp og tók eid af þeim yppurstu
af prestunum, Levítunum og øllum Israel, ad
þeir vildu gjøra einsog sagt var og þeir sóru.
6. Og Esra tók sig upp frá Guds húsi og gékk
til herbergis Eliasibs sonar Jóhanans, þáng-
ad gékk hann og neitti hvørki brauds né drakk
vatn, því hann var hryggur sakir misgjørdar
þeirra, sem úr útlegdinni høfdu komid, 7. og
hann lét úthrópa í Júdeu og Jerúsalem ámed-
al allra þeirra er úr útlegdinni voru komnir ad
þeir skyldu samansafnast í Jerúsalem; 8. og
sérhvør sem ekki kom innan þriggja daga ept-
ir rádstøfun hinna yppurstu og øldúnganna, ad
allar hans eigur skyldu falla til helgidómsins
og hann skyldi útilokast frá samkundu hinna
sem úr útlegdinni komu, 9. og allir menn af
Júda og Benjamín (ættkvísl) samansøfnudust í
Jerúsalem innan þriggja daga (þá var sá ní-
undi mánudur b), en dagurinn sá tuttugasti í

V. 3. *a*. Þ. e. Esras. V. 9. *b*. Þ. e. December, þá er regnvedur vanalegt i Gydíngalandi.

mánudinum) og allt fólkid sat á fløtnum fyrir framan Guds hús, skjálfandi vegna skipunarinnar og vegna stórrigníngarinnar, 10. og presturinn Esra stód upp og sagdi til þeirra: þér hafid breytt svikſamlega í því ad taka ydur útlendar konur, svo bættist vid sekt Israels; 11. og gjørid nú ydar játníngu fyrir Gudi, Drottni fedra vorra og gjørid hans vild og skiljid ydur frá þjódum landsins og frá þeim útlendu konum. 12. Og allur sá samankomni múgur svaradi og sagdi med hárri røddu: þannig, sem þú hefir sagt, ber oss ad breyta; 13. en fólkid er margt og rigníngatími og hefur ekki þrek til ad standa úti og þetta er ekki eins edur tveggja daga starf, því þeir eru margir sem hafa syndgad í þessu efni. 14. Látid því sjá og tilsetjid yfirmenn yfir allann søfnudinn og sérhvør í vorum borgum, sem hefir tekid útlenda konu, hann mæti á tilteknum tíma og med honum øldúngar sérhvørrar borgar og hennar dómendur, allt þángad til ad reidi Guds vors fyrir þess søk snúist frá oss. 15. Einúngis Jónatan sonur Asahels og Jahesia Tikvasonur settu sig gégn þessu, og Mesulam og Sabtai Levíti stód med þeim. 16. En þeir, sem úr útlegdinni voru komnir, gjørdu (einsog sagt var) og vøldu þeir Esra prest og nokkra menn, þá helstu ættfedur í hvørri ætt, alla med nøfnum, og héldu þeir samkomu sína á fyrsta degi ens túnda mánadar a) til ad ransaka þetta mál, 17. og var útkljád um alla þá menn, sem tekid høfdu útlendar konur, á fyrsta degi í enum fyrsta mánudi b). 18. Amedal afkomenda prestanna fundust þessir ad hafa tekid útlendar konur: af sonum Jesúa Jósadakssonar og hans brædra, Maeseia og og Elieser og Jarib og Gedalia. 19. Og þessir lofudu med handsali ad láta frá sér konur sínar og þeir frambáru hrút til fórnar fyrir ávirdíngu sína. 20. Af Immers afkomendum: Hanani og Sebadia. 21. Af afkomendum Harams: Maeseia, Elia, Semaia, Jehiel, og Ussia. 22. Af Fahurs afkomendum: Elioenai, Maeseia, Ismael, Nathanael, Jósabad og Elasa. 23. Og ámedal Levítanna: Jósabad, Simei, Kelaia (sem líka heitir Kelita) Fetahia, Júda og Elieser. 24. Af saungvurunum Eliasib, af dyravørdunum Sallum, Telem og Uri. 25. Af Israel af Faross afkomendum: Ramia, Jisija, Malkia, Mijaman, Eleasar, Malkia, Benaja. 26. Af Elams afkomendum: Matania, Sakaria, Jehiel, Abdi, Jerimot og Elia. 27. Af Satthus afkomendum: Elioenai, Eliasib, Matthania, Jeremot, Sabad og Asisa. 28. Af Bebai afkomendum: Jóhanan, Hanania, Sabbai og Atai. 29. Af Bani afkomendum: Mesullam, Mallu, Adaia, Josub, Seal og Ramot. 30. Af Fahat Moabs afkomendum: Adna, Heal, Benaia, Maeseia, Matthania, Besaleel, Binnui og Manasse. 31. Af Harims afkomendum: Elieser, Jisia, Malkia, Semaia, Simeon. 32. Benjamín, Mallu, Semaria. 33. Af Hasums afkomendum: Matnai, Mattata, Sabad, Elifelet, Jeremai, Manasse, Simei. 34. Af Bani afkomendum: Maedai, Amram, Uel, 35. Benaia, Bedia, Keluhi, 36. Vania, Meremot, Eliasib, 37. Matthania, Matnai, Jaasai, 38. Bani, Binnui, Simei, 39. Selamia, Natan, Adaia, 40. Maknadbai, Sasai, Sarai, 41. Asarel, Selemia, Semaria, 42. Sallum, Amaria, Jósef. 43. Af Nebos innbúum: Jeiel, Matthitia, Sabad, Sebina, Jaddai, Jóel, Benaia. 44. Allir þessir høfdu tekid sér útlendar kvinnur og nokkrar af þeim høfdu syni alid.

V. 16. *a.* Þ. e. Janúar. V. 17. *b.* Þ. e. Apríl.

# Nehemía Bók.

## 1. Kapítuli.

Nehemías fregnar Gydínganna bágu kríngumstædur í Jerúsalem, og bidur Gud ad hjálpa sér til, ad verda þeim til lids hjá Persa Kóngi.

1. Ord (gjörníngar) Nehemiæ Hakaliu-
sonar. Og þad skédi í mánudinum Kislev a)
tuttugasta árid b) ad eg var í Súsan Höfud-
stadnum c). 2. Og Hanani kom þángad, einn
af mínum brædrum, hann og nokkrir menn frá
Júdeu, og eg spurdi hann um Gydíngana sem
afkomust, þá sem eptir urdu af enum faungnu,
og um Jerúsalem, 3. og þeir sögdu mér: leif-
ar þær, er eptir urdu af þeim faungum þar í
landinu eru í miklum bágindum og fyrirlitníngu
og múrar Jerúsalems eru nidurbrotnir og borg-
arhlid hennar brend í eldi. 4. Og þad skédi
þegar eg heyrdi þetta, þá sat eg og grét og var
hryggur marga daga og eg fastadi og eg gjördi
bæn mína til himnanna Guds. 5. Og eg
sagdi: ó minn Gud! himnanna Drottinn! þú
mikli og óttalegi, sem gjætir loforda og nádar
vid þá sem elska og vardveita þín bod; 6. Lát
eyra þitt til vor hneigjast og þín augu vera
opin, svo þú heyrir bæn þjóns þíns, sem eg ber
fram fyrir þig daga og nætur, sakir Israels
sona, þinna dýrkenda, eg medkénni syndir Isra-
els manna, sem þeir hafa drýgt móti þér, einn-
ig eg og hús födur míns höfum syndgad. 7.
Vér höfum brugdid vor heit vid þig og ekki
gjætt þeirra boda, laga og réttinda, sem þú
byrtir þjóni þínum Móses, 8. minnstu nú
þess, er þú byrtir þjóni þínum Móses, er þú
sagdir: þér munud syndga, en eg mun tvístra
ydur ámedal þjódanna. 9. Svo ad þér
snúid ydur til mín og gjætid minna réttinda
og gjörid þau — þóad útlegdar menn ydar
væru undir hinu ytsta himinsins skauti, þá
mundi eg safna þeim þadan og leida þá til
þess stadar, sem eg hefi útvalid til þess ad nafn
mitt d) búi þar. 10. Hvíad þínir þjónar eru
þeir og þitt fólk, sem þú frelsadir med mætti
þínum, enum mikla, og þinni voldugu hendi.
11. O! Herra minn! hneig eyra þitt ad bæn-
um þjóns þíns, og ad bæn þinna þénara,
sem hneigdir eru til ad óttast þitt nafn; far-
sæl nú þjón þinn í dag og lát honum hlotnast
ad finna medaumkvan hjá manni þessum. Eg
var þá Kóngsins skeinkjari.

## 2. Kapítuli.

Artaxerxes skipar Nehemías ad fara til Jerúsalem og byggja upp stadinn og hlada upp aptur múrana.

1. Og þad skédi í mánudinum Nisan e)
tuttugasta árs Artaxerxis Kóngs — ad vín
stód fyrir framan hann og eg tók vínid og
rétti ad Kónginum, og ekki var eg hryggur á-
sýndum f); 2. en Kóngurinn segir vid mig:
því er andlit þitt svo sorgbitid? þú ert þó ekki
sjúkur? ekki er þetta annad enn hugsýki — og
eg vard mjög hræddur, 3. og sagdi til
Kóngsins: Kóngurinn lifi leingi, því skyldi
ekki andlit mitt vera syrgjandi, þared borgin
hvar forfedur mínir eru grafnir er eydilögd
og hennar hlid af eldi fortærd. 4. Og Kóng-
urinn sagdi vid mig: hvörs æskirdu þá, og eg
féll fram fyrir himnanna Gudi. 5. Og eg
sagdi vid Kónginn: efad þad er Kónginum
gédfeldt og þér gédjast ad þjóni þínum,
(þá er þad ósk mín) ad eg verdi sendur til

V. 1. *a.* Þ. e. December. *b.* Þ. e. tuttugasta ríkisstjórnar ár Artaxerxis. *c.* Vetrarsetur enna Persisku Kónga.
V. 9. *d.* Þ. e. dýrkan mín. V. 1. *e.* Þ. e. Aprilis. *f.* Þ. e. lét ekki bera á hrygd minni.

Júdeu, til borgar þeirrar, hvar forfedur mínir eru greftradir, svo ad eg fái byggt hana upp. 6. Og Kóngurinn sagdi vid mig og Drottníngin, sem sat hjá honum: hvad laung ætli ad ferd þín verdi og hvönær ætli þú komir aptur? og Kónginum þókknadist ad senda mig, og tiltók tímann, vissann tíma. 7. Sídan sagdi eg vid Kónginn: ef það er Kónginum þókknanlegt, þá mætti fá mér bréf til landshöfdíngja skattlandanna fyrir handan Evfrat, ad þeir beini mér, þángad til eg kémst til Júdeu. 8. Og bréf til Asafs umsjónarmanns ens Kónglega lystiskógar, ad hann láti mig fá vid, til ad byggja borgarhlid höfudstadarins í hvörjum ad musterid liggur og til borgarmúrsins og til þess musteris, hvört ferdinni er heitid. Þetta veitti Kóngurinn mér vegna Guds gódu handar sem var yfir mér. 9. Og eg kom til landshöfdíngjanna hinumegin fljótsins,' og fékk þeim bréf Kóngsins; Kóngurinn hafdi líka sendt med mér herforíngja og riddara. 10. En þá Sanballat sem var ættadur frá Horon a), og Tobía þjón hans frá Ammoníu heyrdi þetta, mislíkadi þeim þetta mjög svo mikid, ad sá madur skyldi koma sem leitadi hagsmuna Israels sonum.

11. Þá eg kom til Jerúsalem hafdi og verid þar þrjá daga, 12. stód eg upp um nóttina, eg og fáeinir menn med mér, og ekki auglýsti eg það fyrir neinum sem Gud hafdi skotid mér í brjóst ad framkvæma í Jerúsalem, og ekki var nokkur sképna med mér, nema sképna sú sem eg reid, 13. og eg fór útaf dalshlidinu um nóttina og til Höggorma-brunnsins og til Mikíu hlidsins, og eg skodadi Jerúsalems múra, sem voru nidurrifnir og hvörra hlid voru af eldi fortærd. 14. Sídan fór eg til brunnhlidsins og til fiskivatns Konúngsins, þá var ekki leingur vegur fyrir sképnuna sem eg reid. 15. Sídan gékk eg uppí dalinn um nóttina og skodadi múrinn og snéri svo aptur og kom til dalhlidsins og snéri svo heim. 16. Ekki vissu yfirmennirnir hvört eg hafdi farid né hvad adhafst, þvíad þá hafdi eg enn ekkért opinberad Gydíngunum né prestunum, né þeim heldri, né forstödumönnunum, né ödrum sem ad verkinn unnu. 17. En þá sagdi eg vid þá: þér sjáid nú þau bágindi í hvör vér erum komnir; ad Jerúsalem er eydilögd og hlid hennar í eldi brend — komid! og skulum vér nú byggja upp Jerúsalems múra, ad ekki verdum vér framar til minkunar. 18. Og eg sagdi þeim frá Guds gódu hönd, sem yfir mér hafdi verid og líka frá ordum Kóngsins, er hann mælti vid mig: og þeir sögdu: vér viljum taka oss upp og byggja; og þeir tóku hug í sig til þessa gódverks.

19. En er Sanballat frá Horon, og Tobía sá Ammonitiski þjón, heyrdu þetta, og sá Arabiski Gesem, þá höfdu þeir oss ad spotti og fyrirlitu oss og sögdu: hvad er þetta, er þér hafid fyrir stafni? ætlid þér ad gjöra uppreisn á móti Kónginum? 20. En eg svaradi þeim og sagdi vid þá: Drottinn himnanna, hann mun láta oss þetta takast, því vér hans þjónar búumst nú til og ætlum ad byggja, en þér eigid ekkért hlutskipti, edur rétt eda minnismerki í Jerúsalem.

## 3. Kapítuli.

*Borgarmúrarnir eru aptur uppbyggdir.*

1. Og Eliasíb, ædsti presturinn og prestarnir, sem tilheyrdu sömu ættkvísl bjuggust til og byggdu upp Fjárhlidid b) og þeir vígdu það og settu þarí vængjahurdir — og allt ad turninum Mea vígdu þeir það, já, allt til Ha-

V. 10. *a.* Litill stadur í landi Móabitanna. V. 1. *b.* Kalladist svo af því ad á torginu þar hjá var fórnar fénadur seldur, V. 2. *c.* Af fiski sem þar var hafdur á bodstólum.

nanels turns. 2. Vid hlidina á honum byggdu
Jeríkósmenn og vid adra hlid hans byggdi
Sakú Imrison.

3. Fiskihlidid byggdu synir Senaa og
settu þar dyra umbúnad, vængjahurdir ásamt
lokum og slagbröndum. 4. Og vid hlidina á
þeim endurbætti Meremot sonur Uria, sonar
Hakusar; og vid hlidina á þeim endurbætti
Mesullam son Barakia sonar Meseisabels og
vid hlidina á þeim endurbætti Sadok Baanas-
son, 5. og vid hlidina á þeim þeir frá Tekoa,
en þeir voldugu af þeim vildu ekki beigja háls
sinn til ad þjóna herra þeirra.

6. Hid gamla hlid endurbætti Jóiada sonur
Pasea og Mesullam Besodiason og þeir settu
þar dyra umbúnad, vængjahurdir, lokur og slag-
branda. 7. Og vid hlidina á þeim byggdi
Malatia frá Gibeon og Jadon frá Meratan á-
samt ødrum frá Gibeon og Mispa úr umdæmi
landshøfdíngjans fyrir handan fljótid. 8. Vid
hina hlidina á þeim endurbætti Usiel Harha-
juson, einn af gullsmidunum og vid hlid hans end-
urbætti Hanania smirslagjøraxi, (þeir a) høfdu
hlíft Jerúsalem allt ad breida borgarveggnum).
9. Og vid hlidina á þeim endurbætti Refaia
Hursson, umrádamadur yfir helmíngi landsíns
í kríngum Jerúsalem. 10. Vid hlidina á þeim
endurbætti Jedaia Harumafsson, anspænis húsi
sínu, og vid hlidina á honum endurbætti Hatt-
us, sonur Hasabníu. 11. Hinn partinn end-
urbætti Malkia Harumsson og Hasub Fahat
Móabsson og bakaraofnsturninn. 12. Vid
hlidina á honum endurbætti Sallum Hallo-
hesson, umrádamadur yfir helmíngi landsins
í kríngum Jerúsalem, hann og dætur hans.

13. Dalhlidid endurbætti Hanun og Sano-
as innbúar, þeir byggdu þad og settu þarí
vængjahurd og lokur og slagbranda og þúsund
álnir af borgarveggnum allt ad Mikiuhlidinu.
14. Mikiuhlidid endurbætti Malhia Rehabsson,
umrádamadur yfir Bet-Haharems héradi, hann
byggdi þad og setti þarí vængjahurdir, lokur og
slagbranda. 15. Brunnhlidid b) endurbætti Sall-
um, sonur Kolhoss, umrádamadur yfir Mispa
héradi, hann byggdi þad og þakti þad og setti
þarí vængjahurdir, lokur og slagbranda, sömu-
leidis múr Siloa vatnsveitinga, hjá aldingardi
Kóngsins, allt ad trøppunum, hvar géngid er
nidur úr Davíds borg c).

16. Næst eptir hann endurbætti Nehemia
Asbúksson, umrádamadur yfir helmíngi af Bet-
sur héradi, Davíds grøf d) gagnvart og allt
ad fiskivatninu sem hafdi verid gjørt e), og til
húss enna sterku f). 17. Vid hlidina á honum
endurbættu Levítarnir Rehum Banison, vid hlid-
ina á honum lét Hasabía, umrádamadur yfir
helmínguum af héradinu Keila endurbæta af síns
hérads mønnum; 18. eptir hann endurbættu
brædur þeirra Bavai Henadadsson umrádamad-
ur hins helmíngsins af Keila, 19. vid hlidina á
honum endurbætti Eser Jesuason, umrádamad-
ur yfir Mispa, annan hluta anspænis uppgáng-
inum uppí vopnahyrdsluna g) á horninu; 20.
eptir hann endurbætti med miklu kappi Baruk
Sabbaison, annan hluta frá horninu, altad dyr-
unum á Eliasibshúsi, ens ypparsta prests, 21.
eptir hann endurbætti Meremot sonur Uriæ, son-
ar Hakkos, hinn hlutann frá dyrunum á Elia-
sibs húsi til endans á því; 22. eptir hann
byggdu prestarnir þar úr nágrenninu; 23. ept-

V. 8. *a.* Þ. e. óvinirnir. V. 15. *b.* Tók nafn af brunninum Gihon, vestantil vid borgina, sem spratt þvínær upp vid rætur Sions fjalls. *c.* Davids borg stod á þessu fjalli, hvadan trøppur láu nidrí lægri hluta stadarins. V. 16. *d.* Var høggvin í klettinn. *e.* Þ. e. Siloa. *f.* 2 Sam. 21, 16. 18. er getid um gamla Kananitiska þjód austanmegin Jórdanar, nafntogadrar fyrir stærd sína, ádur er þeirra getid 1 Mós. 14, 5. og 15, 20. og Esaiæ 17, 5. er getid um Refa-íms dal; hvar Kóngur þeirra ásamt med mønnum sínum var greftradur sjá 5 Mos. 3, 11. V. 19. *g.* Sjá 1 Kóng. 7, 2. Samanborid vid 10, 17.

ir hann endurbættu Benjamin og Hasub anspænis þeirra húsum, eptir þá endurbættu Asaria son Maeseiu, sonar Ananiu hjá húsi sínu; 24. eptir hann endurbætti Binnui sonur Henadads annan hluta frá húsi Asaria altad horninu til turnsins þar. 25. Falal Usaison anspænis horninu og turninum sem geingur út frá húsi Kóngsins, því hærsta af forbirgi fángahússins; og eptir hann byggdi Fidaia Farossson. 26. En helgidómsins þénarar bjuggu á hædinni sem er anspænis vatnshlidinu a) austanverdt frá þeim framstandandi turni. 27. Eptir hann endurbættu þeir frá Tekoa annann hluta, frá því stóra framstandandi hlidi, altad veggi hædarinnar b). 28. Fyrir ofan hestaportid endurbættu prestarnir, sérhvør anspænis sínu húsi. 29. Næst eptir þá Sadok Immersson, gégnt sínu húsi; eptir hann Semaia Seaniuson, vørdur hlids þess sem er gégnt sólar uppgaungu; 30. eptir hann Hanania Selemiason; og Hanun, sá sjøtti medal Selefssona, annan hluta; eptir hann endurbætti Mesullam Barakiuson anspænis sínu herbergi c). 31. Eptir hann endurbætti Malkia Sorfison altad húsi helgidómsins þjóna og kaupmanna, anspænis vardmanna turninum allt ad herberginu á hornturninum; 32. ámillum þessa herbergis og fjárhlidsins endurbættu gullsmidirnir og kaupmennirnir.

## 4. Kapítuli.

Nábúa þjódir spottast ad borgarveggja hledslunni, og leitast vid ad hindra hana.

1. Og þad skédi þegar Sanballat heyrdi ad vér bygdum borgarveggina, þá brann hann af reidi og eyrdi því mjøg illa og gjørdi gis ad Gydíngunum; 2. og hann mælti vid landa sína og þá voldugu í Samaríu, hvad er þad sem þessir veslings Gydíngar hafa fyrir stafni? á þeim ad leifast þad? munu þeir ætla af færa slátrunarfórnir? eda afljúka verkinu í dag? ætli þeir gjøri lifandi steinana í øskuhrúgunni, þared þeir þó eru brunnir? 3. Og Tobias, Ammoniti, stód hjá honum, og hann sagdi: já! þad sem þeir byggja, efad refur stígi á þad, mundi hann sundra steinum múrveggja þeirra. 4. Heyr oss, vor Gud! hvørsu vér erum smánadir, lát smánanir þeirra koma aptur yfir þeirra eigin høfud, og gjør þá herfekna í landi útlegdarinnar. 5. Hil ekki misgjørd þeirra og afmá ekki synd þeirra fyrir augum þínum; því þeir hafa áreitt þá, sem voru ad byggja. 6. Vér byggdum nú alla borgarveggina og var nú øllum veggjunum lokid, allt ad helmíngi. Fólkid hafdi gódann huga á verkinu.

7. Og þad skédi þegar ad Sanballat og Tobia ásamt med Arabíumønnum, Ammonítum og þeim frá Asdod heyrdu, ad Jerúsalems múrveggir aptur voru uppbyggdir og ad skørdin tóku ad byrgjast, þá urdu þeir mjøg reidir, 8. og þeir tóku síg allir saman um ad fara og færa Jerúsalem stríd á hendur og eydileggja hana. 9. En vér gjørdum bæn vora til Guds vors og héldum vørd nótt og dag móti þeim. 10. Nú søgdu Gydíngarnir: kraptar þeirra er bera, veikjast og rústirnar eru miklar; vér gétum ekki byggt borgarveggina. 11. En óvinir vorir søgdu: ekki skulu þeir vita þad, og ekki sjá þad, fyrr enn vér erum midt ámedal þeirra og britjum þá nidur í strá og gjørum enda á verkinu. 12. En med því ad Gydíngarnir, sem bjuggu í grend vid þá, komu og søgdu okkur tíusinnum frá øllum stødum, hvadan þeir ætludu ad snúast á móti oss. 13. Þá setta eg fyrir nedan á vissum stad á bakvid borgarvegginn þar sem þurrlendt var, þar setti eg fólkid eptir ættkvíslum, med sverdum sínum, skot-

V. 26. *a.* Tók nafn sitt af læknum Kedron sem rann þar hjá. V. 17. *b.* Svo kalladist brekka austanverdt á Sions fjalli. V. 30. *c.* Hebreska ordid brúkast um byggingar sem voru í forgardi musterisins.

spjótum og bogum. 14. Og eg leit eptir øllu og gékk fram og sagdi til enna heldri og yfirmannanna og hins annars af fólkinu: ekki skulud þér óttast þá! minnist heldur Drottins, ens mikla og óttalega, og berjist fyrir brædur ydar, sonu ydar, konur ydar og heimili ydar.

15. Og þad skédi þegar óvinir vorir heyrdu þad ad oss var kunnugt a) og ad Gud hafdi ónýtt þeirra rádagjørdir, snérum vér oss ad því ad fullgjøra borgarvegginn, hvør til sinnar vinnu. 16. Og þad skédi upp frá þessum degi, ad helmíngur sveina minna størfudu ad veggjunum, en hinn helmíngurinn héldt á skotspjótum, skjøldnm, bogum og brinjum, en yfirmennirnir stódu á bakvid fólkid. 17. Þeir sem byggdu múrana og þeir sem settir voru yfir þá sem byrdir báru, unnu verk sitt med annari hendinni, en med hinni héldu þeir á skotspjóti. 18. Hvør og einn byggíngarmanna var girdtur sverdi og byggdu svo, en trumbuslagarinn var hjá mér. 19. Og eg sagdi vid þá heldri, vid yfirmennina og vid hina adra af fólkinu: verkid er mikid og stórgérdt og vér høfum tvístrad oss um borgarveggina lángt hvør frá ødrum; 20. hvar helst þér heyrid trumbu hljódid, þángad skulud þér safnast; Gud vor mun berjast fyrir oss. 21. Vér unnum nú ad verki voru og héldt helmíngur þeirra á skotspjótum allt frá morgunrodans uppgaungu, til þess stjørnurnar uppkomu. 22. Sømuleidis sagdi eg um sømu mundir vid fólkid: hvør og einn med þjónum sínum nátti inní Jerúsalem, ad þeir á næturnar séu oss til varnar, en á daginn ad vinna; 23. og ekki fór eg né ættíngjar mínir, eda sveinar mínir, né vardmenn mínir, úr klædum vorum, hvør og einn hafdi skotspjót sitt og vatns stad b).

## 5. Kapituli.

*Nehemías fyrirbýdur okur. Tók sjálfur eingin laun, en héldt jafnvel marga á sínum kosti.*

1. En nú vard óp fólksins og kvennanna mikid yfir brædrum þeirra Gydíngunum. 2. Þeir voru til sem søgdu: vér eigum sonu og dætur og vér erum margir og vér verdum ad fá korn, svo vér fáum etid og lifad. 3. Þar voru og þeir er søgdu: akra vora, víngarda, og hús vor høfum vér vedsett svo vér feingjum korn í húngrinu, 4. og svo voru þeir sem søgdu: vér høfum lánad peninga uppá akra vora og víngarda í skatt handa Kónginum, 5. og þó er vort hold eins og hold brædra vorra og vor børn eins og þeirra børn, og sjá! vér meigum selja syni vora og dætur í ánaud, og sumar af dætrum vorum eru ánaudugar, og ekkért er í vorri hendi, akrar vorir og víngardar eru annara eign.

6. Þá reiddist eg mjøg, þá eg heyrdi heróp þeirra og þessi þeirra ord, 7. og eg yfirvegadi þetta med sjálfum mér og eg deildi á þá heldri yfirmennina og sagdi vid þá: takid þér okur hvør af brædrum sínum? Og eg kalladi saman fjølmenna samkomu móti þeim, 8. og sagdi vid þá: vér høfum eptir mætti keypt lausa brædur vora Gydíngana, sem seldir voru heidíngjunum, en þér viljid selja brædur ydar, skulu þeir nú selja sig oss? en þeir þøgdu vid og gátu eingu svarad. 9. Sídan sagdi eg: ekki er þad gott sem þér hafid gjørt, og áttud þér ekki ad gánga í ótta Guds vors, eda blygdast ydar fyrir þjódunum, sem eru ydar óvinir? 10. Og svo eg, brædur mínir og sveinar mínir høfum látid þá fá silfur og korn. Látum oss géfa þeim upp þessa skuld! 11. Eg bid ydur! skilid þeim aptur í dag, økrum þeirra

V. 15. *a.* Nefnilega: hvørnig ástód. V. 28. *b.* Menn pløgudu ad lauga sig ádurenn løgdust til svefns á kvøldum.

og víngørdum, vidsmjørsvidargørdum og hús-
um þeirra og hundradasta parti silfursins, korns-
ins, vínsins og vidsmjørsins, sem þér hafid okr-
ad af þeim. 12. Og þeir svørudu: vér viljum
skila því aptur og ekki heimta af þeim; vér
viljum gjøra eins og þú hefir sagt; og eg kalladi
á prestana og tók eid af þeim ad breyta þessu
samkvæmt. 13. Eg hristi ogsvo klædafald
minn og sagdi: þannig burthristi líka Gud
hvørn þann mann, sem ekki heldur þetta, reki
frá heimili hans og eignum hans, og hann skal
verda hrakinn og allslaus! þá hrópadi øll sam-
koman: veri þad svo! og þeir vegsømudu Gud
og fólkid gjørdi eins og fyrir var mælt.

14. Upp frá þeim degi, þá Kóngurinn
setti mig til landshøfdíngja í Júda landi, frá
Artaxerxes Kóngs tuttugasta til þrítugasta og
annars árs, í tólf ár, naut eg og brædur
mínir ekki landshøfdíngja bordeyris a), 15.
en hinir fyrri landshøfdíngjar, sem á undan
mér voru, høfdu lagt þúngt ok á fólkid, og
tóku af því korn og vín, og þaradauk 40 sikla
silfurs b). Sveinar þeirra drottnudu og svo yfir
fólkinu; en ekki breytti eg þannig; því eg ótt-
adist Gud. 16. Líka vann eg ad borgar-
veggja byggíngunni, og ekki keyptum vér held-
ur akurlendi og allir sveinar mínir søfnudust
þess vegna þángad til ad þjóna ad bygging-
unni. 17. Og Gydíngarnir og yfirmennirnir
hundrad og fimtíu manns, komu til mín frá
þjódunum sem bjuggu í kríng, auk þeirra manna
sem sátu vid mitt bord. 18. Og þad sem
daglega var matreidt, var eitt naut, sex feitar
saudkindur, en fuglar vóru matreiddir handa mér;
á tíu daga fresti (var og fært mér) allrahanda
vín í nægtum, en allt fyrir þad krafdi eg ekki
landshøfdíngja bordeyris, því áløgur þúngar
láu á fólki þessu. 19. Minnstu mín, Gud
minn! til ens góda; alls sem eg hefi gjørt
fyrir fólk þetta.

## 6. Kapituli.

*Nehemías fær umflúid rádabrugg óvinanna gegn honum.*

1. Og þad skédi þegar Sanballat heyrdi
þetta, og Tobia og Gesem sá Arabiski og
adrir vorir óvinir heyrdu, ad eg hefdi byggt
upp múrinn og ad skørd væru ekki framar
ordin í honum, einasta hafdi eg enn nú ekki sett
í hlidin. 2. Þá sendi Sanballat og Ges-
em bod til mín og lét segja mér: látum oss
koma saman í einu af þorpunum í dalnum
Ono, en þeir hugsudu ad gjøra mér íllt; 3.
eg sendi til þeirra sendiboda er skyldi segja þeim:
eg hefi mikid starf fyrir hendi og gét ekki komid
— skyldi verkid hvíla þessvegna, ad eg slæi sløku
vid þad og færi nidur til ykkar? 4. Fjórum
sinnum sendu þeir til mín med þessum skila-
bodum og eg sendi þá aptur med sømu ordum.
5. Og Sanballat sendi í fimta sinni til mín
svein sinn med sømu skilabodum og fékk hon-
um opid bréf. 6. Í því var ritad: sú fregn
berst hjá (nábúa) þjódunum, og Gasmu segir:
ad þú og Gydíngar hafid uppreisn í hyggju,
þess vegna byggir þú borgarveggina og ad þú
girnist ad verda Kóngur þeirra; svona segja
þeir. 7. Sømuleidis: ad þú hafir tilsett spá-
menn til ad úthrópa um þig í Jerúsalem og seg-
ja: „hann er Kóngur Gydínga". Þessi ord-
rómur mun nú berast til Kóngsins; kom nú þess
vegna, svo vér sameiginlega gétum talast vid
um þetta. 8. Eg sendi aptur til hans og lét
segja honum: ekki er þetta þannig, sem þú seg-
ir, þvíad af eiginn hugþótta hefir þú þetta
uppspunnid. 9. Því ad þeir vildu allir gjøra
oss hrædda, og þeinktu: þeir munu láta hend-

V. 14. *a.* Bordeyrir kølludust øll þau gjøld í vistum, víni og skotgjaldi, er skattløndin máttu greida til bordhalds landshøfdingjans og manna hans. V. 15. *b.* Hvør sikill er eptir Persa reikningi, hérum 20 ß. silfurs.

urnar falla frá verkinu og hætta vid svo búið. En styrk nú hendur mínar (ó Gud)!

10. Eg gékk út til húss Semaiæ sonar Deleiæ, sonar Mehetabels, sem hafdi innilokad sig, og hann sagdi: látum oss sameginlega fara inní Guds hús, midt inní helgidóminn, og látum oss loka dyrum helgidómsins, því nokkrir eru á leidinni til ad myrda þig, og þeir koma í nótt til ad fyrirfara þér; 11. og eg svaradi honum: hvørt skyldi madur, eins og eg, flýa, og hvør er sá af mínum líkum a) er geingid géti inní helgidóminn, og haldid lífi? eg fer ekki. 12. Og eg virdti hann fyrir mér, og sjá! ekki hafdi Gud sendt hann til þess ad hann spádi fyrir mér, heldur høfdu Tobía og Sanballat keypt hann. 13. Þess vegna var hann keyptur, ad eg skyldi verda hræddur og gjøra þannig og syndga, og þad skyldi verda þeim tilefni til ills umtals, svo þeir gjætu bríxlad mér. 14. Minnstu, Drottinn minn! Tobíæ og Sanballats, eptir sem adferd þeirra verdskuldar og líka spákonunnar Noadin og hinna annara Spámanna, sem leitudust vid ad skélfa mig. 15. Og þeir luku vid múrinn þann tuttugasta og fimta Elul b), eptir fimtíu og tvo daga.

16. Og þad skédi þegar allir óvinir vorir spurdu þetta, ad allar þær þjódir sem bjuggu í kríng urdu óttaslegnar og þær rírnudu mikid í sínum egin augum, því þær þekktu nú ad þad kom frá Gudi vorum, ad vér feingum unnid þetta verk.

17. Um þessar mundir skrifudu margir gøfugir menn Gydínganna bréf og létu þau fara til Tobía, eins og líka frá Tobía komu bréf til þeirra; 18. þvíad margir í Gydíngalandi høfdu svarid honum eid, þvíad hann var dóttur madur Sekania Arahssonar og Jóhanan sonur hans hafdi tekid dóttur Mesullams Barakíasonar til ekta. 19. Líka tøludu þeir margt gott um hann vid mig og báru honum aptur ord mín, en Tobía skrifadi bréf til ad skélfa mig.

## 7. Kapítuli.

Nehemías lætur setja vardmenn í borgarhlidin og uppá múrana. Finnur uppteiknan á þeim sem komid høfdu med Sóróbabel. (Samanber Esra 2 Kap).

1. Og þad skédi þegar vér vorum búnir ad byggja múrinn, ad eg innsetti og svo hlidin og tilsetti hlidaverdi og verdi á borgarveggjunum og Levíta, 2. og eg setti Hanani, bródur minn, og Hanania vígisins yfirmann, yfir Jerúsalem, því hann leit út fyrir hreinskilinn mann og óttadist Drottinn mørgum fremur. 3. Og eg sagdi vid þá: ekki skulu Jerúsalems port opnast fyrri enn sólin er hátt á lopti og medan þid standid þar hjá, skulu hurdirnar lokast og vera læstar, sømuleidis skulud þér setja Jerúsalems borgara sem vardmenn, hvørn þar sem hann á vørdur vera, sérhvørn anspænis sínu húsi. 4. En stadurinn var mikill ad ummáli og stór, en fólkid fámennt í honum, og einginn hús uppbyggd. 5. Þá skaut Gud mér því í brjóst ad eg samansafnadi þeim gøfugu og yfirmønnunum og fólkinu til manntals eptir ættum. Eg fann manntal þeirra eptir ættum, sem fyrst høfdu farid upp til Jerúsalem, og eg fann þar ritad:

6. Þessir eru þeir sem fæddir voru í skattlandinu, sem komu úr herleidíngunni í framandi landi, hvørja Nebúkadnesar Kóngurinn í Babel hafdi flutt burtu; þeir sem snéru aptur til Jerúsalem og Júdalands, hvør til sinnar borgar. 7. Þeir sem komu med Sóróbabel: Jesua, Nehemía, Asaria, Raamía, Nahamani, Mardokai, Bilkan, Misparet, Bigvaí, Nehum og Baana. Þessi er tala Ísraels manna: 8. Faros afkomendur: tvø þúsund, eitt hundrad, sjøtíu og tveir. 9. Sefatías afkomendur: þrjú hundrud, sjøtíu og tveir. 10. Aras

V. 11. a. Þ. e. sem ekki er prestur, samanber. 4 Mós. 18, 3 og 7. V. 15. b. Þ. e. September.

afkomendur: sex hundrud, fimtíu og tveir. 11. Fahat Móabs afkomendur af Jesúa og Jóabs ætt: tvø þúsund, átta hundrud, og átján. 12. Elams afkomendur: eitt þúsund, tvø hundrud fimtíu og fjórir. 13. Sathusar afkomendur: átta hundrud fjørutíu og fim. 14. Sakais afkomendur: sjø hundrud, og sextíu. 15. Binnuis afkomendur: sex hundrud, fjørutíu og átta. 16. Bebais afkomendur: sex hundrud, tuttugu og átta. 17. Asgads afkomendur: tvø þúsund, þrjú hundrud, tuttugu og tveir. 18. Adonikams afkomendur: sex hundrud, sextíu og sjø. 19. Bigvais afkomendur: tvø þúsund, sextíu og sjø. 20. Adins afkomendur: sex hundrud, fimtíu og fim. 21. Aters afkomendur og þad af ætt Hiskia: níutíu og átta. 22. Hasums afkomendur: þrjú hundrud, tuttugu og átta. 23. Besais afkomendur: þrjú hundrud, tuttugu og fjórir. 24. Harifs afkomendur: eitt hundrad og tólf. 25. Ættadir frá Gíbeon: níutíu og fim. 26. Ættadir frá Betlehem og Netofa: eitt hundrad, áttatíu og átta. 27. Ættadir frá Anatot: eitt hundrad, tuttugu og átta. 28. Ættadir frá Asmavet: fjørutíu og tveir. 29. Ættadir frá Kirjat-Jearim, Kerifa og Beerot: sjø hundrud, fjørutíu og þrír. 30. Ættadir frá Rama og Geba: sex hundrud, tuttugu og einn. 31. Ættadir frá Mikmas: eitt hundrad, tuttugu og tveir. 32. Ættadir frá Bethel og Ai: eitt hundrad, tuttugu og þrír. 33. Nebos afkomendur: fimtíu og tveir. 34. Elams afkomendur: eitt þúsund, tvø hundrud fimtíu og fjórir. 35. Harims afkomendur: þrjú hundrud og tuttugu. 36. Ættadir frá Jerikó: þrjú hundrud fjørutíu og fim. 37. Ættadir frá Lydda, Hadid og Ono: sjø hundrud, tuttugu og einn. 38. Senaas nidjar: þrjú þúsund, níu hundrud og þrjátíu. 39. Prestar afkomendur Jedaia af ætt Jesúa: níu hundrud, fjøtíu og þrír. 40. Immers afkomendur: eitt þúsund, fimtíu og tveir. 41. Fasurs afkomendur: eitt þúsund, tvø hundrud, fjørutíu og sjø. 42. Harims afkomendur: eitt þúsund og seitján. 43. Levítar, afkomendur Jesúa, Kadmíels, Bani og Hodavia: sjøtíu og fjórir. 44. Saungvarar af Asafs afkomendum: eitt hundrad, fjørutíu og átta. 45. Dyraverdir, afkomendur Salloms, Aters, Talmons, Ahubs, Hatíta, Sobais: eitt hundrad, þrjátíu og átta. 46. Helgidómsins þjónar afkomendur Siha, Hasufa, Tabaot. 47. Keros, Siga, Fadons. 48. Lebana, Hagaba, Salmaí. 49. Hanans, Giddels, Gahars. 50. Reaja, Resíns, Nekuda. 51. Gasams, Ulsa, Faseas. 52. Besaí, Meunims, Nafisims. 53. Bakubs, Harhufa, Harhurs. 54. Baslits, Mehida, Harsa. 55. Barkos, Sisera, Tama. 56. Nesía, Hatifa. 57. En framar afkomendur Sotais, Soferets, Perida. 58. Jaela, Darkons, Giddels. 59. Sefatia, Hattil, Fokerets, Hasebaims, Amons. 60. Allir helgidómsins þjónar, og afkomendur Salómons þræla: þrjú hundrud, níutíu og tveir. 61. Þessir eru þeir sem fóru frá Telmelak, Tel-Harsa, Kerúb, Addon og Immer til Jerúsalem, en gátu ekki skírt frá ætt fedra sinna, eda afkomendum þeirra hvørt þeir voru (komnir) af Israel. 62. Afkomendur Delaías, Tobia, Nekóda, sex hundrud, fjørutíu og tveir; 63. og af prestunum, afkomendur Habaia, Hakos og Barsillai, (sem hafdi tekid sér konu af dætrum Barsillai frá Gílead) og hann var nefndur eptir nafni þeirra. 64. Þessir leitudu ad ættartølu sinni, en gátu ekki fundid hana, og þess vegna voru þeir útilokadir frá prestaembættinu. 65. En sá Persiski landshøfdíngi sagdi vid þá: menn neyti ekki af því heilaga í helgidóminum fyrri enn búid er ad setja prest fyrir Urim og Tummim. 66. Allur múgurinn til samans, fjørutíu þúsundir,

þrjú hundrud, og sextíu; 67. auk þeirra þjóna og ambátta, sem voru sjø þúsund, þrjú hundrud, þriátíu og sjø. Paradauki høfdu þeir tvø hundrud, fjørutíu og fim saungvara af køllum og konum. 68. Sjø hundrud, þrjátíu og sex hesta — tvø hundrud, fjørutíu og fim múlasna. 69. Fjøgur hundrud, þrjátíu og fim úlfalda; sex þúsund, sjø hundrud og tuttugu asna. 70. Og nokkrir af ættkvíslanna yfirmønnum gáfu til fyrirtækisins, landshøfdínginn gaf til samskots eyrisins í gulli, þúsund Darkemona, fimtíu skálar, fim hundrud og þrjátíu prestaklædnadi. 71. Af ættkvíslanna yfirmønnum var lagt til þess gjalds, sem brúkast átti til verksins, tuttugu þúsundir Darkemona í gulli, og tuttugu og tvær Minur a), í silfri. 72. Pad sem hitt af fólkinu gaf, var tuttugu þúsundir Darkemona í gulli, tvær þúsundir Silfur Minur og sextíu og sjø presta-nærkyrtla. 73. Og nú bjuggu prestarnir, Levítarnir, dyraverdirnir, Saungvararnir og adrir af fólkinu, helgidóms þjónarnir og allur Israel, hvør í sinni borg.

## 8. Kapítuli.

*Esra les løgmálid fyrir fólkinu.*

1. Og allt fólkid safnadist nú einsog einn madur á torgid, sem var anspænis vatnshlidinu og mæltu vid Esra enn Skriftlærda: ad hann kjæmi fram med løgmálsbók Mósis, sem Gud hafdi sett Israel. 2. Og frambar presturinn Esra, á fyrsta degi þess 7da mánadar, løgmálid fyrir samkomuna, svovel kall sem konu, og alla sem vit høfdu á eptir ad taka, 3. og las þad upp á torginu fyrir framan vatnsportid frá byrtíngu og allt til middegis, fyrir køllum og konum og þeim sem skilníng høfdu, og allra eyru hneigdu sig ad løgmálsbókinni. 4. Esra, enn skriftlærdi stód á háum tréstól, sem menn høfdu gjørt til þess; en honum vid hægri hlid stódu Matitia, Sama, Anaia, Uria, Hilkia og Maeseia, en Fedaia, Misael, Malkia, Hasum, Hasbuddana, Sakaria og Mesullam vid hans vinstri. 5. Sá skriftlærdi Esra lauk upp bókinni í augsýn alls fólksins, því hann stód hærra enn allt fólkid, og þegar hún var opnud, stód allt fólkid upp. 6. Og Esra lofadi Drottinn, þann mikla Gud, og allt fólkid svaradi: Amen, Amen! í því þad fórnadi upp høndunum, beygdu sig og féllu fram á sínar ásjónur til jardar fyrir Drottni. 7. Jesúa, Bani, Serebia, Jamin, Akub, Sabtai, Hodia, Maeseia, Klita, Asaria, Jósabad, Hanan og Felaia og Levítarnir útþýddu løgmálid fyrir fólkinu, en fólkid stód kyrrt á sínum stad. 8. Og þeir lásu skírt í Guds løgmáls bók og gáfu útskíríngar og útløgdu undireins og þeir lásu.

9. Og Nehemía, sem var landshøfdíngi, og Esra, sem var prestur og skriftlærdur og Levítarnir sem kéndu fólkinu, søgdu til gjørvalls lýdsins: þessi dagur er helgadur Drottni ydar Gudi. Verid hvørki syrgjandi né grátandi! því allt fólkid grét þegar þad heyrdi løgmálid. 10. Og hann sagdi til þeirra: etid hid feita og drekkid hid sæta og sendid skérf til þeirra sem ekkért hafa tilreidt, því þessi dagur er heilagur fyrir Drottni vorum, verid ekki sorgbitnir, gledi í Gudi sé ydar hæli. 11. Levítarnir þøggudu nidur grát fólksins og søgdu: hættid þér ad gráta, því þessi dagur er heilagur, verid því ekki sorgbitnir, 12. og allt fólkid fór nú til ad eta og til ad drekka og sendu skérfi og héldu mikla gledi hátíd, því þeir høfdu skilid þau ord, er menn høfdu kunngjørt þeim.

13. Deginum eptir søfnudust yfirmenn ætta alls fólksins, prestarnir og Levítarnir til Esra

V. 71. *a.* Mina: hérumbil einsog hjá Grikkjum Mna: 28½ lód ad vigt; en sem penínga mynt 22½ ríkisdalur Kúrant.

ens skriftlærda, til ad skygnast inní ord løgmáls=
ins. 14. Og fundu þeir ad skrifad var í løg=
málinu af Móses eptir Guds skipan, ad Ísra=
els børn ættu ad búa í laufskálum a) á hátíd=
inni í sjøunda mánudinum. 15. Þeir ættu ad
kunngjøra og bodskap láta útgánga um allar
þeirra borgir og í Jerúsalem svo látandi: far=
id út til fjallsins og komid med vidsmjørsvid=
arblød, vidsmjørsvidar greinir, myrtusvidar
greinir, pálmavidar greinir, og greinir af þétt=
laufgudum trjám, til ad byggja laufskála, sam=
kvæmt því sem fyrirskrifad er. 16. Fólkid fór
út og kom med þetta, og bjuggu þeir sér til
laufskála hvør á sínu þaki, og í forgørdum
sínum, og í forgørdum Guds húss, og á torg=
inu vid vatnshlidid og vid Efraimshlid. 17.
Og allur múgurinn sem aptur var kominn
úr herleidíngunni, byggdu laufskála og bjuggu
í laufskálum; því allt frá døgum Jósúa Nuns=
sonar og allt til þessa dags, høfdu Ísraels
menn ekki gjørt þad. Og vard þar mikil gledi.
18. Og menn lásu í løgmáls bók Guds dag
eptir dag, frá fyrsta deginum til ens sídasta.
Þeir héldu hátídina í 7 daga og á 8da deg=
inum hátídar samkomuna einsog vera átti b).

## 9. Kapítuli.

*Ad aflidinni laufskálahátídinni halda Ísraelsmenn ydrunarhátíd løgmálsins.*

1. Á tuttugasta og fjórda deginum í þess=
um mánudi, samansøfnudust Ísraelsmenn med
føstu og sekkjum og moldu yfir høfdum sér.
2. Og þeir skildu Ísraels nidja frá øllum út=
lendra afkomendum og þeir stódu upp og med=
kéndu sínar syndir og sínna fedra syndir. 3.
Og hvør stód upp á sínum stad; og menn lásu
í løgmálsbók Guds Drottins þeirra, fjórda part
úr deginum og fjórda part af deginum gjørdu
þeir játníngu sína og féllu fram fyrir Drott=
inn sinn Gud. 4. Og Jesúa og Bani og Kad=
miel, Sebania, Bunni, Serebia, Banni, Ha=
nani stigu uppí rædupall Levítanna og ákølludu
med hárri røddu Drottinn, þeirra Gud. 5. Le=
vítarnir: Jesúa, Kadmiel, Bani, Hasabnia,
Serebia, Hodia, Sebania, Petahia, søgdu: rís=
id upp og vegsamid Drottinn ydar Gud, frá
eilífd til eilífdar, menn vegsami þitt dýrdlega
nafn, sem er upphafid yfir alla blessan og
vegsaman! 6. Þú ert Drottinn, þú einn! þú
hefir gjørt himininn, já! himnanna himna og
allann þeirra her, jørdina og allt sem er á
henni; høfin og allt sem er í þeim og þú géf=
ur því øllu líf — ogsvo himnanna hersveitir
beygja sig fyrir þér. 7. Þú ert Drottinn Gud!
sem hafdir velþókknan á Abraham og sem leiddir
hann frá Ur í Kaldeu og gafst honum nafnid
Abraham. 8. Þú fanst hjarta hans hrein=
skilid fyrir þínu augliti og gjørdir sáttmála vid
hann ad géfa honum land Kananítanna, Het=
ítanna, Amorítanna Feresítanna og Jebúsítanna,
Girgasítanna, og afkomendum hans og upp=
fylltir ord þín, þvíad þú ert réttlátur. 9.
Þú sást neyd fedra vorra í Egyptalandi og
heyrdir andvarpanir þeirra vid sefhafid c). 10.
Og þú gjørdir tákn og stórmerki á Faraó og
á øllum hans þjónum og á øllu fólkinu í landi
hans, því þú vissir ad þeir breyttu grimdar=
lega vid þá, og þú tilbjóst þér stórt nafn eins
og á þessum degi. 11. Þú klaufst hafid fyr=
ir þeirra augum, og þeir geingu midt í gégn=
um hafid, einsog á þurrlendi, en þeim sem eltu
þá, steyptir þú í øldurnar einsog steinum í hid
óblga vatn. 12. Á daginn leiddir þú þá med
skýstólpa og med eldstólpa á nóttunni, til ad
lýsa þeim á þeim vegi er þeir skyldu fara.
13. Þú steigst nidur á Sínaífjall og taladir
frá himni vid þá, og gafst þeim rétta dóma
og stadfast løgmál, góda setnínga og bodord;

V. 14. *a.* 3 Mós. 23, 34. V. 18. *b.* Sjá 3 Mós. 28, 36. 4 Mós. 29, 35. V. 9. *c.* Þ. e. rauda hafid.

14. og gjørdir þeim kunnugann þinn helga
hvíldardag og gafst þeim bodord, setnínga og
løgmál fyrir hønd þjóns þíns Mósis. 15. Fædu
gafstu þeim frá himnum vid húngri þeirra, og
útleiddir vatn af hellunni handa þeim vid
þorsta þeirra, og þú baudst þeim ad koma til
ad leggja undir síg landid, sem þú hafdir svar-
id ad géfa þeim.

16. En þeir, og fedur vorir urdu offstopa-
fullir og forherdtir og hlustudu ekki á þín bod,
17. og veigrudu sér vid ad hlýda, og ekki minnt-
ust þeir þinna dásemdarverka, sem þú hafdir
gjørt þeim; forherdtu síg og í þeirra þverúd,
vøldu yfirmenn til ad leida þá til baka til þræl-
dómsíns. En þú Gud fyrirgéfníngarinnar ert
nádugur og miskunsamur, lánglundarsamur og
mikill ad miskun og yfirgafst þá ekki. 18. Jafn-
vel þá, er þeir høfdu gjørt sér steiptann kálf,
og søgdu: „þetta er þinn Gud, sem leiddi þig
útaf Egyptalandi," og høfdust ad stórar gud-
lastanir. 19. Þá yfirgafstu þá samt ekki á
eydimørkunni, vegna þinnar miklu miskunsemi.
Skýstólpinn veik ekki frá þeim um daga, til
þess ad leida þá á veginum, né eldstólpinn
á nóttunni, til ad lýsa þeim á þeim vegi, sem
þeir áttu ad fara. 20. Þinn góda anda gafstu
til ad gjøra þá vitra, og ekki héldst þú Manna
frá munni þeirra, og veittir þeim vatn vid
þorsta þeirra. 21. Í fjørutíu ár forsorgadir
þú þá á eydimørkunni, svo þá ekkért skorti;
þeirra føt firntust ekki og þeirra fætur bólgn-
udu ekki. 22. Þú gafst þeim Konúngsríki og
þjódir og skiptir þeim híngad og þángad, svo
þeir eignudust landid Síhon, og land Kóngsíns
í Hesbon og land Ogs Kóngs í Basan. 23. Og
gjørdir afkomendur þeirra svo marga, sem stjørn-
ur á himni, og þú fluttir þá inní þad land,
sem þú hafdir heitid fedrum þeirra, ad þeir ættu
ad fara þángad og eignast þad. 24. Og af-
komendur þeirra komust þángad og eignudust
landid og þú nidurþriktir fyrir þá, þeim sem
bjuggu í landinu; Kanaans menn gafst þú í
þeirra hendur og Kónga þeirra og þjódirnar í
landinu, svo ad þeir breyttu vid þá einsog
þeir vildu. 25. Og þeir tóku rambyggdar
borgir og feitt land og eignudust hús full af
allskonar gjædum, brunna úthøggna í steini,
víngarda, vidsmjørs vidargarda og aldintré, full
matar. Þeir neyttu og urdu mettir og feitir og
lifdu í sællífi sakir þinnar miklu gódgirni.

26. En þeir urdu þverbrotnir og óhlýdugir
vid þig og køstudu løgmáli þínu á bak sér apt-
ur, og drápu spámenn þína, sem advørudu þá,
ad þeir skyldu snúa sér til þín; og frømdu mikl-
ar smánanir. 27. Þá gafstu þá í hendur óvina
þeirra, er þjádu þá, en á tíma þreyngíngar-
innar hrópudu þeir til þín, og þú heyrdir þá
af himnum ofan, og sakir þinnar miklu misk-
unsemi gafstu þeim frelsara, og þeir frelsudu þá
úr høndum óvina þeirra; 28. En þá þeir voru
komnir til hvíldar, snéru þeir sér til ad gjøra
íllt fyrir þér; þá gafstu þá í hendur óvina
þeirra svo þeir drottnudu yfir þeim; þá snéru
þeir sér og hrópudu til þín, og þú heyrdir þá
frá himni ofan, og frelsadir þá í mørg skipti
sakir þinnar miskunar. 29. Þú áminntir þá
innilega ad þeir létu sér snúa til løgmáls þíns,
en þeir gjørdust frekir og gáfu ekki gaum ad
bodum þínum og syndgudu á móti løgmáli
þínu; en sá madur sem gjætir þeirra, hann
mun lifa; en þeir þverskølludust, gjørdust hard-
svíradir og hlýddu ekki, 30. en þú dróst (samt
ad straffa) í mørg ár, og áminntir þá med
anda þínum fyrir spámenn þína, en ekki snéru
þeir eyrum sínum ad því; þess vegna of-
urgafstu þá í hendur þjódanna í løndunum;
31. en søkum þinnar mikillrar miskunsemdar
gjørdir þú ekki alveg útaf vid þá, eda yfirgafst
þá, því þú ert Gud nádugur og miskunsamur.
32. Og nú, Gud vor! þú mikli, sterki og ótta-

legi Gud, sem gjætir fyrirheita þinna og miskun-
seminnar, lát þér eigi litla sýnast alla armœdu þá,
sem frá døgum enna Assýrisku Kónga og allt til
þessa dags hefir mætt Konúngum vorum, yfir-
mønnum, prestum, spámønnum, og fedrum vor-
um og gjørvallri þjód vorri. 33. Þú ert rétt-
látur í øllu sem þú hefir látid koma yfir oss, þú
hefir audsýnt oss gjædsku, en vér høfum breytt
ógudlega; 34. og svo vorir Kóngar, yfirmenn,
prestar og fedur, hafa ekki heldur breytt eptir
løgmáli þínu og ekki athugad bod þín og ad-
varanir, med hvørjum þú hafdir advarad
þá, 35. og ekki hafa þeir þjónad þér og ekki
snúid sér frá sinni vondu breitni í Konúngstign
sinni, í velgeingninni, er þú úthlutadir þeim og
í því vídlenda og frjóssama landi er þú veittir
þeim. 36. Sjá! vér erum þrælar og landid sem
þú gafst fedrum vorum, svo þeir nytu ávaxt-
anna og gjædanna, sjá! þar erum vér þrælar.
37. Margfaldann ágóda veitir þad Kóngunum,
sem þú hefir sett yfir oss, vegna synda vorra;
og þeir drottna yfir líkømum vorum og fénadi
vorum, eptir eigin hugþótta, og vér erum í
stórri neyd.

## 10. Kapítuli.

*Fólkid ányar sáttmála sinn vid Gud.*

1. Áhrærandi allt þetta gjørdum vér stadfast-
ann sáttmála og høfdíngjar vorir, Levítar og prest-
ar innsígludu hann. 2. Og þeir er innsígludu
voru þessir: Nehemía Tirsatiti, sonur Hakalia
og Sedekia, 3. Seraia, Asaria, Jeremía, 4.
Pasúr, Amaria, Malkia, 5. Hattus, Sebania,
Malúk, 6. Harim, Meremot, Obadia, 7. Dan-
íel, Ginton, Barúk, 8. Mesullam, Abia, Mi-
amin, 9. Maasía, Bilgai, Semaja; þetta voru
prestarnir. 10. En Levítar (vóru þessir): Je-
sua, sonur Asania, Binnúi, einn af sonum
Henadads, Kadmiel, 11. og brædur þeirra:
Sebania, Hodía, Klíta, Pelaia, Hanan, 12.
Mika, Rehob, Hasabia, 13. Sakur, Serabia,
Sebania, 14. Hodia, Bani, Beninu; 15. høfd-
íngjar lýdsins voru: Pareos, Pahat, Móab,
Elam, Satú, Bani, 16. Buni, Asgad, Bebai,
17. Adonia, Bigvai, Adin, 18. Ater, Himskia,
Asúr, 19. Hodia, Hasum, Besai, 20. Harit,
Anatot, Nevbai, 21. Magpias, Mesúllam, He-
sír, 22. Mesesabel, Sadok, Jadúa, 23. Platia,
Hanon, Anaia, 24. Hósea, Hanania, Hasúb,
25. Halóhes, Pila, Sóbek, 26. Rehúm, Hasa-
bna, Maeseia, 27. Ahia, Hanan, Anan, 28.
Mallúk, Harim, Baena. 29. Og hinir af
lýdnum, prestarnir, dyraverdirnir, Levítarn-
ir, saungvararnir, helgidóms þjónarnir, og
sérhvør sá, sem hafdi tekid sig frá þjódum
(heidnu) landanna, til (hlýdni) vid løgmál
Guds, konur þeirra, synir og dætur, sérhvør
skinugur og vitur, 30. gékk í flokk med sínum
gøfugari brædrum, og í eid og svardaga (med
þeim), ad þeir vildu fylgja løgmáli Guds, sem
hann gaf fyrir hønd Mósis, þjóns síns, og halda
og uppfylla øll bodord Drottins vors Herra,
og hans réttindi og setnínga; 31. og ad vér
ekki skyldum géfa dætur vorar þjódum lands-
ins og vér ekki taka þeirra dætur handa son-
um vorum; 32. og þegar lýdir landsins færdu
oss varníng og allslags korn til kaups, ad vér
eigi skyldum taka vid því af þeim á hvíldar-
degi, eda ødrum helgum døgum a); og ad vér
skyldum láta sjøunda árid yrkíngarlaust b), og
géfa upp allar skuldir.

33. Og vér løgdum á oss þad løgmál: ár-
lega ad géfa þridja part sikils til þjónustuhúss
Guds vors, 34. til skodunarbrauda, stødugra
matfórna, stødugra brennifórna á hvíldardøg-
um, á túnglkomu hátídum og (ødrum) føstum
hátídum, og til þess sem helgad er, og til
syndafórna til ad forlíka fyrir Israels lýd og

V. 32. *a.* Sjá 5 Mós. 5, 12—15. 3 Mós. 23, 3—5. 15—21. 24—28. 36. Sbr. 26, 35. *b.* 3 Mós. 25, 1—8.

til allskonar verks í húsi Guds vors. 35. Og
vér vørpudum hlutkésti um gáfurnar til brenni-
vidarins, prestarnir, Levítarnir og lýdurinn a),
eptir fedra vorra húsum, um ad flytja hann
til húss Guds vors á ákvednum tímum, ár
eptir ár, til eldsneytis á altari Drottins vors
Guds, einsog fyrir er mælt í løgmálinu. 36.
Sømuleidis (vidtókum vér) ár eptir ár ad koma
med til húss Drottins frumgróda lands vors
og aldinvidar; 37. frumburdi vorra sona og
fénadar, einsog skrifad er í løgmálinu; og ad færa
til húss Guds vors, til prestanna, sem þjóna í húsi
vors Guds, frumburdi nautpeníngs vors og smá-
fénadar; 38. og hid fyrsta af vorum upplypt-
íngar fórnum og ávøxtum allra trjáa; og ad vér
af nýu víni og vidsmjøri skyldum færa prestun-
um í sali húss Guds vors, og Levítunum tíund af
landi voru, því Levítarnir eiga ad gjalda (apt-
ur) tíund af hverri þeirri borg (sem liggur þar,
sem) vér høfum akuryrkju b); 39. og prestur-
inn c), nidji Arons, skal vera hjá Levítunum,
þegar þeir greida tíundina; því Levítarnir eiga
ad koma med tíundina af tíundinni upp til húss
Guds vors, til sala fjárhyrslu hússins d; 40.
því til þessara sala skulu Ísraels menn og Le-
vítarnir koma med upplyptíngar fórnir korns-
ins, þess nýa víns og vidsmjørs: (þar eru
þau helgu kér, prestarnir, sem þjónustunnar
gjæta, dyraverdirnir og saungvararnir), svoad
vér ekki yfirgéfum hús Guds vors.

## 11. Kapituli.

Um þad hvorjir bjuggu í Jerúsalem og þorpunum.

1. Høfdíngjar lýdsins bjuggu í Jerúsalem;
en hinir af lýdnum vørpudu hlutkésti (þarum
þannig), ad einn af tíu tæki sér bústad í Jerúsal-
em, þeirri helgu borg, en hinir níu (væru) í
hinum stødunum; 2. og lýdurinn blessadi þá,
sem sýndu sig fúsa til ad búa í Jerúsalem.

3. Þessir eru høfdíngjar landsins, sem bjuggu
í Jerúsalem. En í Júdalands stødum, bjó hvør
á eign sinni í sínum þorpum: Ísraelsmenn,
prestarnir, Levítarnir, helgidóms þjónarnir og
afkomendur þjóna Salómons. 4. Í Jerúsalem
bjuggu af Júda og Benjamíns afkomendum:
Af afkomendum Júda: Ataia Usías son, son-
ar Sakaria, sonar Amaria, sonar Sefatia,
sonar Mahelalels af afkomendum Peres, 5.
og Maeseia, sonur Barúks, sonar Kol-Hoses,
sonar Hasaia, sonar Adajas, sonar Jojaribs,
sonar Sakaria, sonar Salons. 6. Allir
synir Peres (samtaldir) sem bjuggu í Jerúsalem
vóru fjøgur hundrud, sextíu og átta, vaskir menn.
7. En afkomendur Benjamíns vóru: Sallu,
sonur Mesullams, sonar Jóeds, sonar Pedaja,
sonar Kólaia, sonar Maeseia, sonar Itiels, son-
ar Jesaja, 8. og eptir hann; Gabai, Sallai,
níu hundrud, tuttugu og átta; 9. og Jóel, son-
ur Sikris var yfirmadur þeirra, og Júda, sonur
Senúa, var annar ædstur yfir borginni. 10.
Af prestunum: Jedaia, sonur Jojaribs, Jakin,
11. Seraja, sonur Hilkia, sonar Mesullams,
sonar Sadoks, sonar Merajots, sonar Ahitobs,
umsjónarmanns Guds húss, 12. og brædur
þeirra, sem gjørdu þad sem gjøra þurfti í hús-
inu e), alls átta hundrud, tuttugu og tveir, og
Adaia, sonur Jeróhams, sonar Pelalia, son-
ar Amisi, sonar Sakaria, sonar Pashúrs,
sonar Malkia, 13. og brædur hans høfdíng-
jar ættfedra (húsa), tvø hundrud, fjørutíu og
tveir, og Amasai, sonur Asarels, sonur Ahesaia,
sonar Mesillemots, sonar Immes, 14. og þeirra

V. 35. *a.* Líklegast: vissir útvaldir af lýdnum. V. 38. *b.* Levítarnir féngu ekkért akurlendi heldur beitiland einúngis 1000 álnir útfrá borgum þeirra á alla vegu allt í kríng, 4 Mós. 35, 1—5; þar fyrir utan láu akurlønd annara Ísraelsmanna. V. 39. *c.* Líklegast: ædsti presturinn. *d.* Í sølunum, sem voru byggdir í kríngum musterid, en ei áfastir vid þad, bjuggu prestarnir; þar voru og geymdir dýrgripir og fjársjódur musterisins, og þad því galdst. V. 12. *e.* Þ. e. í musterinu sjálfu.

brædur, er vóru miklar hetjur, (alls) hundrad, tuttugu og átta, og yfirmadur þeirra var Sabdiel, sonur Gedolims. 15. En af Levítunum: Semaja, sonur Hasúb, Asrikams, sonar Hasabia, sonar Búni, 16. og af høfdíngjum Levítanna: Sabtai og Jósabad, (sem settir voru) til ad sjá um utan-húss-verk Guds húss, 17. og Mathanía, Mikkas son, sonar Sabdis, sonar Asafs, sem var fyrirlidi þeirra er byrjudu lofgjørdar-saunginn, og Bakbukia næstur eptir hann af brædrum hans, og Abda, sonur Sammua, sonur Galals, sonar Jedútún; 18. allir Levítarnir í borginni helgu, voru tvø hundrud, áttatíu og fjórir. 19. En dyraverdirnir vóru: Akub, Talmón og þeirra brædur, sem héldu vørd vid hlidin, hundrad, sjøtíu og tveir. 20. En hinir adrir af Israels lýd, prestarnir og Levítarnir, bjuggu í øllum ødrum stødum Júdalands, hvør á eign sinni. 21. En helgidóms þjónarnir bjuggu á hædinni a), og Síha og Gisfa voru settir yfir þá. 22. En umsjónarmadur Levítanna í Jerúsalem, var Usí Banis son, sonar Hasabia, sonar Mathanía, sonar Míka, afkomandi Asafs, fyrirlidi saungvaranna vid þjónustuna í Guds húsi. 23. Því bodord var af Kónginum géfid um þá og víst kaup handa saungvurunum fyrir hvørn dag; 24. því Petaia, sonur Mesesabels, einn af afkomendum Seras, Júda sonar, var Kónginum vid hønd í øllu því sem lýdnum vidkom.

25. Hvad þorpin snertir í løndum þeirra, þá bjuggu nokkrir af afkomendum Júda í Kirjat-Arba og þorpunum, sem undir hana liggja, og í Dibon og þorpum hennar og Kapsel og hennar þorpum, 26. og í Jesúa, og Molada og Bet-Palet, 27. og í Hasar-Súal og Ber-Seba og þorpunum, sem undir hana liggja, 28. í Siklag og Makona og hennar þorpum, 29. í En-Rimmon, Sora, og Jarmút, 30. í Sanoa, Adullam og þeirra þorpum, í Lakis og landi hennar, í Aseka og undirliggjandi þorpum, og høfdu tjøld sín frá Ber-Seba allt til Hinnoms dals b). 31. En Benjamíns afkomendur frá Geba bjuggu í Mikmas, Aja og Bet-El og hennar þorpum, 32. í Anatot, Nob, Anania, 33. Hasor, Rama og Gitaim, 34. Hadid, Seboim, Neballat; 35. Lod og Ono, og í smida dalnum c).

36. Nokkrir af Levítanna flokkum, sem áttu bústad í Júda (ættkvíslar) landi, bjuggu í landi Benjamínítanna.

## 12. Kapítuli.

Upptaldir prestarnir og Levítarnir. Borgarveggirnir vígdir. Menn tilsettir til ad hafa umsjón yfir tekjum musterisins og s. fr:

1. Þessir voru þeir prestar og Levítar, sem fóru upp med Sóróbabel Sealtiels syni og Jesúa: Seraja Jeremía, Esra. 2. Amría, Malluk, Hattús, 3. Sekania, Rehum, Meremot, 4. Iddo, Ginntoi, Abía, 5. Míamin, Maadia, Bilga, 6. Semeja, Jojarib, Jedaja. 7. Sallu, Amuk, Hilkia, Jedaia; þetta voru høfdíngjar prestanna og brædra þeirra á døgum Jesúa. 8. Levítarnir: Jesúa, Binnui, Kadmiel, Serebia, Júda, Mattania hann og brædur hans voru settir yfir lofsaunginn, 9. og Bakbúkia og Unni, brædur þeirra, eins og þeir til gjætslu þará. 10. En Jesúa gat Jójakim, og Jójakim gat Elíasíb, og Elíasíb gat Jójada, 11. og Jójada gat Jónatan, og Jónatan gat Jaddúa.

12. Á døgum Jójakims voru þessir ættar høfdíngjar ámedal prestanna: af (nidjum) Sera-

V. 21. *a.* Hæd á Sions fjalli. V. 30. *b.* Dalur sudausturundan Jerúsalem. V. 35. Dalur nálægt Jerúsalem á takmørkum Júda ættkvíslar og Benjamíns. V. 9. Í 4 Mós. 10, 10. er útþrikkilega bodid af Drottni ad í básúnur skuli blásast á hátídum og þegar á musterisins altari væri fórnfært, og Davíd setti sídar til, ad saungur og hljódfæra sláttur skyldi brúkast vid Guds þjónustuna og skipti þeim Levítum í flokka, sem ad því þjónudu sjá 1 Kron. 24, 5. 26, 1—7. Sbr. 2 Kron. 5, 11—13. o. s. fr.

ja Meraja, af (nidjum) Jeremía Hananía,
13. af (nidjum) Esra Mesullam, af (nidjum)
Amarja Jóhanan, 14. af (nidjum) Meluki
Jónatan, af (nidjum) Sebania Jósep, 15.
af (nidjum) Harims Adna, af (nidjum) Mera-
jots Helkai, 16. af (nidjum) Iddos Sakaría,
af (nidjum) Gintons Mesullam, 17. af (nid-
jum) Abía Sikri, af (nidjum) Minjamin,
(kominn) af Moadia, Piltai, 18. af (nidjum)
Bilga Sammua, af (nidjum) Semaja Jónat-
an, 19. af (nidjum) Jójaribs Matnai, af
(nidjum) Jedaia Usí, 20. af (nidjum) Sall-
ai Kallai, af (nidjum) Amoks Eber, 21. af
(nidjum) Hilkia Hasabia, af (nidjum) Jeda-
ia Nethaneel.

22. Á døgum Eliasibs, Jójadas, Jóhanans
og Jadúa voru uppskrifadir af Levítunum
ætthøfdíngjarnir, og af prestunum undir Darí-
usar, ens Persiska, ríkisstjórn, 23. ætta høfd-
íngjar afkomenda Leví, eru uppskrifadir í ann-
álabók þeirrar tídar allt til dags Jóhanans,
sonar Eliasibs; 24. og voru høfdíngjar Levítanna
þessir: Hasabia, Serebia og Jesúa Kadmí-
els son, gagnvart þeim voru settir til ad lofa
og vegsama (Gud) eptir reglugjørd Davíds,
þess Guds manns, hópur hjá hóp a). 25.
Mattanía og Bakbukia, Obadía, Mesullam, Tal-
mon, Akkúb, héldu vørd sem dyraverdir á vard-
manna svædinu hjá forda búrum portanna b).
26. Þessir voru á døgum Jójakims, sonar Je-
súa, sonar Josadaks; og á døgum Nehemía
landshøfdíngja, og Esra prests, þess skriftlærda.

27. Þegar borgarveggir Jerúsalems áttu
ad vígjast, krafdi hann ad menn skyldu sækja
Levítana frá øllum þeirra stødum, til ad halda
vígslu- og gledi-hátíd med lofgjørdar saung-
um og hljódfæra slætti, bumbum, hljódpípum
og hørpum. 28. Þá søfnudust saman allir
saungvarar frá nágrenninu allt í kríngum Jerú-
salem, og frá Natobi þorpum, 29. frá Bet-
Gilgal og landareign Giba og Asmavet; því
saungvararnir høfdu byggt sér bæi allt í kríng-
um Jerúsalem. 30. Og prestarnir og Levít-
arnir hreinsudu sig, þeir hreinsudu og lýdinn,
borgarhlidin og borgarveggina. 31. Ad því
búnu lét eg høfdíngja Júda (ættkvíslar) stíga
uppá borgarvegginn og tilsetti tvo lofgjørdar
saungkóra mikla, (annar þeirra) skyldi ofaná,
á borgarveggnum, halda til hægri handar, ad
mikju-hlidinu, 32. og gékk Hósaía og helm-
íngur af Júda (ættkvíslar) høfdíngjum á eptir
þeim, 33. nefnilega: Asaría, Esra og Me-
sullam, 34. Júda, Benjamín, Semaja og
Jeremía; 35. og synir prestanna c) med bá-
súnum: Sakaría, sonur Jónatans, sonar Sema-
ja, sonar Mathanía, sonar Mikaja, sonar Sa-
kúrs, sonar Asafs, 36. og brædur hans: Sem-
aja og Asareel, Milelai, Gilelai, Maai, Net-
hanael og Júda, Hanani med hljódfærum Da-
víds, Guds manns, og Esra, hinn skriftlærdi
(var) fyrir þeim. 37. Og hjá brunn-hlid-
inu d) gagnvart þeim geingu þeir upp trøppur
Davíds borgar, þar sem geingid er upp á
borgar vegginn, fyrir ofan Davíds hús allt
til vatns hlidsins, á móti austri. 38. En ann-
ar lofgjørdar saungkórinn hélt gagnstædann
veg, og eg á eptir þeim og helmíngur lýdsins,
yfir borgar vegginn, yfir ofn-turninn, allt til
breida-veggjarins, og yfir Efraims-hlid, yfir
gamla-hlidid og yfir fiska-hlidid og Hanan-
eels turn og turninn Mea, allt til fjár-hlids-
ins og nam stadar vid mirkvastofu hlidid. 40.
Og svo stódu bádir lofgjørdar saungkórarnir
hjá Guds húsi, og eg, og helmíngur forstødu-

V. 24. *a.* Líklegast meintur: saungkóra hópur, sem áttu ad leika á hljódfæri og syngja á virl, sbr. 2 Kron. 7, 6. V. 25. *b.* Líklega meint: port forgarda musterisins. V. 35. *c.* Þ. e. Lærisveinar þeirra og þeir sem stódu til ad verda prestar. V. 37. *d.* Er lá vestanverdt inn til borgarinnar, vid Sions fjalls rætur.

manna lýdsins. 41. Og prestarnir: Elíakim,
Maesefa, Miniamín, Míkaia, Elionai, Saka=
ría og Hananía med básúnum, 42. og Maese=
ia, Semaira og Eleaser, og Usi og Jóhanan,
og Malkia, Elam og Eser, og saungvararnir
léku á hljódfæri, en Jesrahia var fyrirlidinn.
43. Menn frambáru þenna dag miklar sláturs
fórnir og glöddu sig, því Gud hafdi veitt þeim
mikla gledi, og konur og børn glöddu sig líka;
og þessi gledi Jerúsalems fréttist vída vegar.

44. Á sama degi voru settir menn yfir
fordabúr fjárhirdslunnar fyrir upplyptíngar fórn=
ir, frumgróda fórnir og tíundir, til þess þáng=
ad væri fluttur sá hluti af løndum stadanna,
sem prestunum og Levítunum bar eptir løg=
málinu, því ad Júdaland gladdist yfir prest=
unum og Levítunum; 45. og ad þeir gættu
þess, sem gæta átti fyrir Gudi, og þess sem
gæta a) átti hreinsuninni vidkomandi, og svo
hvad saungvurum og dyravørdum vidkom, sam=
kvæmt því sem Davíd og hans sonur Salómon
høfdu tilsett. 46. Því fordum á døgum Da=
víds og Asafs, voru høfdíngjar yfir saungvurun=
um, til voru og lofgjørdar og þakklætis saungvar
til Guds. 47. Og allur Ísraels lýdur á=
kvardadi á døgum Sóróbabels og døgum Ne=
hemía víst tiltekid fyrir saungvarana og
dyraverdina, vissann skérf fyrir hvørn dag;
og hann helgadi (víst tiltekid) Levítunum og
Levítarnir Árons nidjum b).

## 13. Kapítuli.

*Framandi sem ádur høfdu tekid þátt í Guds dýrk=
uninni med Gydíngum var vikid burt, og ýmis=
leg lagabrot aftekin.*

1. Á sama degi var lesid í Mósis bók ad
øllum lýdnum áheyrandi, og fannst í henni skrif=
ad ad hvørki Móabítar né Ammonítar, c)
skyldu koma í søfnud Guds til eilífdar, 2.
vegna þess ad þeir ekki høfdu viljad koma med
braud og vatn til nidja Ísraels, og høfdu keypt
Bíleam til ad bølva þeim; en Gud vor snéri
bølvan þeirra í blessun. 3. En þad skédi, ad
þegar menn heyrdu løgmálid, þá tók sérhvør
útlendur sig frá Ísraels mønnum. 4. Fyrir þá d)
hafdi presturinn Eliasib tekid herbergi í Guds
húsi handa frænda Tobía, 5. og gjørt hon=
um stórt herbergi, og þar høfdu menn látid
(ádur) gáfur, og reykélsi og tíundir af korni,
nýu víni og vidsmjøri, tekjur Levítanna, saung=
varanna og dyravardanna og upplyptíngarfórnir
prestanna. 6. En ámedan þetta tidkadist, var
eg ekki í Jerúsalem; því á þrítugasta og ødru
ári Artaxerxis Kóngs í Babylon, kom eg til
Kóngsins, og í enda ársins bar eg bæn mína
upp fyrir Kónginn; 7. og svo kom eg til
Jerúsalem, og komst ad því illa, sem Eliasib
hafdi gjørt fyrir Tobía, ad hann hafdi látid
gjøra honum herbergi í forgardi Guds húss.
8. Mér mislíkadi þad mjøg og kastadi eg øll=
um kérum sem voru í herbergi Tobía út úr
herberginu, 9. og baud ad menn skyldu
hreinsa þad, og bar sídan inn kérin, matfórn=
irnar og reykélsid.

10. Eg fékk líka ad vita ad skérfur Levít=
anna ekki var greiddur og ad þeir voru flúnir
útá lendur sínar; Levítarnir og saungvararnir,
sem áttu ad gæta þjónustunnar. 11. Eg
deildi þá á forstødumennina, og sagdi: hvørs
vegna er Guds hús yfirgéfid? og setti þá á
sinn stad. 12. Og allur Júdalands lýdur
kom med sínar tíundir: korn, nýtt vín og vid=
smjør til fordabúranna. 13. Og eg setti um=
sjónarmenn yfir fordabúrin, Selemia prest, og

V. 45. *a.* Nefnil. ad musterinu og því vidkomandi væri hreinu haldid, ad ekkért óhreint kæmi nærri því, skéra úr hvad óhreint væri, og hvad vid þad væri ad gjøra og s. fr: eins og tiltekid er í Móses løgum. V. 47. *b.* Þ. e. prestunum. Kap. 13, 1. *c.* sjá 5 Mós. 23, 3. V. 4. *d.* Nefnil. Móabíta og Ammoníta.

Sadok þann skriftlærda, og af Levítunum Pedaia, og Hanan, til þess ad hann væri þeim vid hønd; þvíad þeir voru álitnir trúir, og þeim lá þad á herdum ad skipta á milli brædra sinna. 14. Þeink til mín þess vegna, Gud minn! svo ad ekki ad eingu verdi góðverk þau, sem eg hefi gjørt vid hús Guds míns og gjætslu hans (þjónustu).

15. Um sømu mundir sá eg, ad Júdalands menn tródu vínþrúgu a) á hvíldardøgum, og komu til Jerúsalem á hvíldardøgum med asna klifjada þúngum klifjum, med víni, vínberjum og fíkjum og allslags klifjum, og eg ávítadi þann hardlega, sem seldi fæduna. 16. Líka bjuggu þar menn frá Týrusborg, sem fluttu þángad fisk og allslags varníng og seldu á hvíldardøgum til innbúa Júdalands og Jerúsalems. 17. Þá deildi eg á høfdíngja Júdalands og sagdi vid þá: hvílíkt er þad vondsku verk, sem þér adhafist, og vanhelgid hvíldardaginn þar med! 18. Hafa ekki forfedur vorir svona breytt og Gud þess vegna látid allt þetta illa koma yfir oss og þessa borg? og aukid þér ekki grimdar reidi (hans) gégn Israel, med því ad vanhelga hvíldardaginn? 19. Og þad skédi þegar myrkt vard í borgarhlidum Jerúsalems á undan hvíldardeginum b), þá baud eg ad hlidin skyldu læsast og ad menn skyldu ekki uppljúka þeim til hvíldardagsins, og nokkra af sveinum mínum setti eg vid borgarhlidin til þess ad eingar byrdar skyldu berast þar innum á hvíldardeginum. 20. Þá urdu verslunarmennirnir og sølumennirnir ad nátta med allslags varníngi fyrir utan Jerúsalem. Þetta skédi einusinni eda tvisvar. 21. Og eg taladi til þeirra alvarlega og sagdi: hvørs vegna náttudud þér fyrir utan borgarveggi? ef þér gjørid þad optar, legg eg hendur á ydur! uppfrá því komu þeir ekki á hvíldardegi. 22. Sídan baud eg Levítunum, ad þeir skyldu hreinsa sig og koma sídan til ad halda vørd vid borgarhlidin, til þess ad helga hvíldardaginn. Þeinktu líka þess vegna til mín, Gud minn! og þirm mér vegna þinnar miklu miskunsemi.

23. Líka sá eg um sømu mundir ad Gydíngar høfdu sér konur tekid frá Asdod, Ammoníta- og Móabíta-landi; 24. og synir þeirra tøludu ad hálfu leiti Asdods mál, og gátu ekki (hreint) Gydínga mál talad, heldur (bjagad) eptir þessarar eda annarar (útlendrar) þjódar máli. 25. Og eg deildi á þá og bad þeim bølbæna, og sló nokkra af þeim, hárreitti þá, og lagdi fyrir þá svo látandi eid: þér skulud ekki géfa dætur ydar sonum þeirra, og ekki heldur taka dætur þeirra handa ydar sonum eda ydur sjálfum! 26. Syndgadi ekki Salómon, Kóngur Israels, hérí? og þó var einginn Kóngur á medal þeirra mørgu þjóda þvílíkur sem hann, og elskadur var hann af Gudi sínum, og Gud setti hann yfir allann Israels lýd, og samt leiddu hann útlendar konur til synda. 27. Og skyldum vér þá láta þad eptir ydur, ad drýgja svo mikid íllt gégn vorum Gudi, ad taka útlendar konur?

28. En einn af sonum Jójada, sonar Eliasibs ædsta prests, hafdi mægdst vid Sanballat frá Hóron c). Hann rak eg frá mér. 29. Minnstu þeirra, Gud minn! vegna saurgunar prestastandsins og sáttmála prestanna og Levítanna d).

V. 15. *a.* Øll þrælkan á mønnum og dýrum var i Mósis løgum stránglega bønnud á hvildardøgum. V. 19. *b.* Hvildardagurinn eins og adrir dagar byrjadi á sólarlagi og endadi á sólarlagi daginn eptir. V. 20. Á næturnar er kaldt i Gydingalandi. V. 23. Asdod, ein af helstu borgum Filisteanna. V. 25. Ad reita hár af ødrum var fyrirlitningar merki. V. 28. *c.* Hóron var borg i Móabita landi. V. 29. *d.* Prestarnir og Levitarnir høfdu gjørt þann sáttmála vid Gud, ad halda sér frá øllu þvi sem saurgadi.

30. Þannig hreinsadi eg þá a) frá øllum
útlendíngum og lagdi prestum og Levítum
á herdar gjætslu þeirra þjónustu, hvørjum sitt
verk, 31. og gáfur til (brenni)-vidar á til-
settum tíma, og frumgróda. Minnstu mín, Gud
minn! til góds.

# Esters Bók.

## 1. Kapítuli.

Asverus Kongungur gjørir mikid heimbod. Rekur
frá sér drottníngu sína Vasti.

1. Og þad skédi á døgum Asverus, (þessi
Asverus ríkti frá Indíalandi og allt til Mór-
lands, yfir hundrad tuttugu og sjø løndum).
2. Á þeim tíma, er hann hafdi ró á sínu
Konúnglega hásæti í slotinu Súsan, 3. ad
hann gjørdi, á þridja ári síns Konúngdóms,
géstabod øllum høfdíngjum sínum og þénurum;
og þeir volduguslu í Persía og Medíalandi,
þeir ædstu høfdíngjar í hérudunum (stódu) frami
fyrir honum. 4. Þá hann lét sjá þann mikla
ríkdóm síns Kóngsríkis og dýrd sinnar hátign-
ar í marga daga, nefnilega: hundrad og átta-
tíu daga. 5. Ad þessum døgum lidnum
gjørdi Konúngurinn (annad) géstabod øll-
um þeim mønnum er voru í slotinu Súsan, bædi
stórum og smáum (háum og láum), er var-
adi í sjø daga í forgardinum hjá aldingardin-
um vid Kóngs høllina. 6. Þar héngu hvít,
græn og blá tjøld, bundin saman med dýrmætu
líni og skarlats snúrum, fest í silfur hrínga á
marmara stólpum; bekkirnir voru úr gulli og
silfri, en gólfid var lagt med raudum, bláum,
hvítum og svørtum marmara steinum. 7. Í alls
háttar gullkérum voru drykkirnir innbornir, og vín
Konúngsins var yfirgnæfanlegt, eptir ríkdómi
Konúngsins b), 8. og ad eingum var haldid hve
mikid hvør skyldi drekka, því Kóngurinn hafdi
bodid øllum frammistødu mønnum í sínu húsi,
ad láta hvørn gjøra eptir eigin vild. 9. Og
Vasti drottníng gjørdi og géstabod konum í því
Kónglega húsi Asverus Kóngs.
10. Og á þeim sjøunda degi, þá Asverus
Kóngur var gladur af víni, baud hann, Me-
human, Bista, Harbóna, Bigta, Abagta, Set-
ar og Karkas, þessum sjø herbergja sveinum
sínum, er þjónudu Asverus Konúngi, 11.
ad sækja Vasti Drottníngu, og leida hana inn
fyrir Konúnginn, og skyldi hún hafa ríkisins
kórónu á høfdi sér, svo hann léti fólkid og
høfdíngjana sjá fegurd hennar, því hún var
fríd sýnum. 12. En Vasti Drottníng vildi ei
koma, eptir þeim ordum Konúngsins er herberg-
ja sveinar Kóngsins báru henni; þá reiddist
Konúngurinn ákaflega og grimd brann hon-
um í brjósti. 13. Og Konúngurinn sagdi
vid hina vísu sem best vissu tímana (því Kon-
úngleg málefni dæmast af þeim hyggnustu, í
løgum og rétti); 14. og þá sem næstir hon-
um voru, þá sjø høfdíngja Persanna og Me-
danna: Karsena, Setar, Admata, Tarsis, Me-
res, Marsena og Memukan, hvørjir sjá máttu
Konúngsins auglit, og høfdu ædstu sæti í rík-
inu: 15. hvørjum dómi (mælti hann) skal

V. 30. *a.* Gydingana. V. 7. *b.* (Hebr. eptir hønd Kóngsins). V. 13. Vissu tímana: austurlanda mesta speki var haldin stjørnu lystin, og sá sem hana kunni var því haldinn vitrastur.

Vasti drottníng dæmast, fyrir það hún ei hlýddi ordsendíng Assverus Kóngs fyrir milligaungu herbergis sveina hans? 16. Þá sagdi Memúkan (í áheyrn) Konúngsins og høfdíngjanna: Vasti drottníng hefir ei einasta brotid á móti Konúnginum, heldur einnig á móti øllum høfdíngjum og móti øllum þeim þjódum, sem eru í løndum Assverus Kóngs. 17. Því þessi breytni drottníngarinnar mun útberast til allra kvenna, svo þær munu sýna fyrirlitníng mønnum sínum, uppí opin augu þeirra; og munu svo seigja: Assverus Konúngur baud drottníngu sinni Vasti ad koma fyrir sig, en hún kom ekki. 18. Svo munu høfdíngja konurnar í Persíu og Medía segja vid alla Kóngsins høfdíngja, nær þær spyrja hvad drottníngin hefir gjørt, svo það mun valla fyrirlitníngu og reidi; 19. sé það nú Kóngsins gódur vilji, þá láti hann Konúnglegt bod útgánga, sem skrifad sé í løg Persanna og Medanna, hvørt þá órjúfanlegt er, ad Vasti drottníng skuli ei framar koma fram fyrir Assverus Kóng, og ad Konúngurinn gefi ríki hennar þeirri, sem henni sé næst og henni betri. 20. Og þá þetta Kóngsins bréf, sem samid verdur, heyrist um allt hans ríki (sem mjøg er stórt) munu allar konur hafa menn sína í heidri, hvørt þeir eiga ad sér meira edur minna. 21. Þetta gédjadist bædi Konúnginum og høfdíngjunum, og Konúngurinn breytti eptir rádi Memukans. 22. Þá voru bréfin send út um øll Kóngsins lønd, í sérhvørt land skrifad, eptir þess lands skrift, og til sérhvørs fólks eptir þess túngumáli, ad hvør madur væri húsbóndi í húsi sínu; og hann lét tala (þetta) eptir túngumáli (sérhvørs) síns fólks.

## 2. Kapítuli.

*Fátæk Gydínga stúlka, ad nafni Ester, fødur og módurlaus, verdur drottníng í stadinn fyrir Vasti.*

1. Eptir ad þetta var skéd, og Assverus Konúngi var runnin reidin, þá minntist hann Vasti, bædi hvad hún gjørt hafdi og líka hvør dómur hafdi yfir hana geingid. 2. Þá søgdu Kóngsins þénarar, er honum þjónudu: leiti menn eptir úngum stúlkum, frídum, handa Konúnginum, 3. og setji Konúngurinn til menn um øll lønd ríkis síns, sem samansafni øllum úngum vænum meyum á slotid Súsan, í kvennastofuna, undir umsjá herbergis sveins Kóngsins, Hegai, sem gjætir kvennanna, og gefi hann þeim skart þeirra a). 4. Og hvør sú mey, sem Konúnginum þóknast, verdi drottníng í stad Vasti. Þetta féll Konúnginum vel í géd og hann gjørdi svo. 5. En á slotinu Súsan var madur nokkur af Gydínga fólki, er hét Mardokeus, sonur Jairs, sonar Símei, sonar Kís, Benjamíníti, 6. sem fluttur hafdi verid frá Jerúsalem, þá Júda Kóngur Jekónía var hertekinn, sá sem Nabógódónósor Kóngur flutti til Babel; 7. og hann var fóstri Hadassa, sem er sama og Ester, dóttur fødurbródur síns, því hún var fødur og módurlaus, og bædi falleg og væn stúlka; og þá fadir hennar og módir øndudust, þá tók Mardokeus hana í dóttur stad. 8. Þá þetta bod og skipan Konúngsins var auglýst, og safnad saman mørgum úngum meyum á slotid Súsan, undir vardveitslu Hegai, þá var Ester og tekin til Konúngs hússins, undir vardveitslu Hegai, kvenna vaktara. 9. Og sú únga stúlka gédjadist honum og hún fann nád í hans augum, því flýtti hann sér med hennar hreinsanir, og med það ad gefa henni hennar hluta, og hann fékk henni sjø frídar úngmeyar úr Konúngs húsinu og valdi henni og þernum hennar þann besta stad í kvennasalnum. 10. Ester sagdi ekki frá fólki sínu eda ætt sinni, því Mardokeus hafdi sagt henni, ad opinbera það eingum. 11. Og Mardokeus gékk daglega í fordyr kvennabúrsins, til ad frétta hvørt Ester

V. 4. *a.* Eiginl: það sem þarf til þeirra hreinsunar, hebr: gefi þeirra hreinsanir.

(lidi) vel, og hvad um hana yrdi. 12. Og þá rødin kom ad hvørri stúlku, ad hún geingi fyrir Assverus Kóng, ad lidnum tólf mánudum eptir kvenna løgunum; því svo lángan tíma útheimtu þeirra hreinsanir, nefnilega: sex mánudi med balsami og myrru, og adra sex mánudi med dýrdlegum smyrslum, og (ødru), sem vidvék kvenna hreinsunum, 13. þá gékk meyan fyrir Konúnginn; allt sem hún bad um, var henni feingid, ad þad geingi med henni frá kvennabúrinu til Konúngs hallarinnar. 14. Um kvøldid gékk sú sama inn og ad morgni fór hún frá honum aptur inní annad kvennabúr undir vardveitslu Saasgasar, hvøred var herbergis sveinn Konúngs, og sem geymdi frillanna; og þessi (mey) mátti ei aptur koma til Kóngsins nema Konúnginum þókknadist, og léti kalla á hana med nafni. 15. Og þá rødin kom ad Ester dóttir Abihails fødur bródurs Mardokeus, sem hann hafdi tekid sér í dóttur stad, ad hún geingi fyrir Konúnginn, þá bad hún einkis, nema þess, sem Hegai herbergis sveinn Konúngs og kvennavaktari sagdi; og Ester fann nád, hjá øllum er hana sáu, 16. og Ester var tekin handa Assverus Kóngi inní hans konúnglega hús, í tíunda mánudi er kallast Tebet, á sjøunda ári hans ríkisstjórnar. 17. Og Konúngurinn elskadi Ester meir enn allar kvinnur, og hún fann nád og miskun hjá honum fremur øllum úngum meyum, og hann setti á høfud henni þá Kónglegu kórónu, og gjørdi hana ad Drottníngu í stad Vasti; 18. og Konúngurinn gjørdi øllum høfdíngjum sínum og þénurum stórt géstabod, Esters géstabod, og gaf løndunum hvíld, og útbýtti Konúnglegum gáfum a). 19. Og þá úngmeyunum var í annad sinn samansafnad, sat Mardokeus í Konúngs portinu. 20. Ester hafdi ei enn gétid um ætt sína, né sitt fólk, því Mardokeus hafdi svo bodid henni; og Ester breytti eptir ordum hans eins og þá hún var í fóstri hans.

21. En á sama tíma, sem Mardokeus sat í Kóngs portinu, þá urdu tveir herbergis sveinar Kóngsins, Bigtan og Teres, medal þeirra, sem geymdu dyranna, reidir, og ásettu sér ad leggja hønd á Assverus Kóng. 22. Þessa vard Mardokeus áskynja, og kunngjørdi (þad) Ester Drottníngu, en Ester sagdi Konúngi frá í nafni Mardokeus. 23. Og þá þetta var ransakad, fannst þad satt ad vera, og þeir voru bádir heingdir á tré, og þetta var ritad í minnis bók, Konúngi ásjáanda.

## 3. Kapítuli.

Metorda-gyrnd Amans og heipt vid Gydínga.

1. Eptir ad þetta var skéd, gjørdi Assverus Kóngur Aman son Ham-Medata, Agagita, mikinn, og hóf hann upp til tignar, og setti sæti hans upp fyrir allra høfdíngja sætin, þeirra er med honum vóru. 2. Og allir þjónar Kóngsins er voru í Kóngs portinu, féllu á kné og lutu Aman, því Konúngurinn hafdi bodid þannig honum til handa; en Mardokeus beigdi hvorki kné sín fyrir honum né laut honum. 3. Þá søgdu Kóngs sveinar þeir, er voru í Kóngsportinu vid Mardokeus: því yfirtredur þú Kóngsins bod? 4. Og þá þeir høfdu ítrekad þetta daglega vid hann, en hann vildi ei hlýda þeim, þá létu þeir Aman vita þetta, svo þeir sæu, hvørt Mardokeus stædi vid ord sín, því hann hafdi sagt þeim, ad hann væri Gydíngur. 5. Og þá Aman sá, ad Mardokeus beygdi ei kné fyrir sér, og vildi ei heldur lúta sér, þá reiddist hann stórlega, 6. en honum þótti einkis verdt ad leggja hønd á Mardokeus einann, því þeir høfdu sagt Aman frá fólki Mardokeus, heldur hugsadi hann sér ad afmá Mardokeus fólk, alla þá

V. 18. a. Hebr. eptir Kóngsins hønd.

Gydínga er voru um allt ríki Assverus Kóngs.

7. Í fyrsta mánudi, þad er í mánudinum Nísan, á tólfta ári ríkisstjórnar Assverus Kóngs, var Pur, þ. e. hlutfalli kastad, í augsýn Amans, frá einum degi til annars og frá mánudinum, allt til þess tólfta mánadar, sem er mánudurinn Adar. 8. Og Aman sagdi vid Assverus Kóng: hér er fólk útdreift og útbreidt á medal allra þjóda og í øllum løndum þíns ríkis, og løg þess eru ødruvísi enn allra annara þjóda, og þad breytir ei eptir Kóngsins løgum, og þad er ei hollt fyrir Konúnginn, ad láta þad svo (vera). 9. Þóknist því Konúnginum, þá skipi hann skriflega ad drepa þad, og svo skal eg vega tíu þúsund vættir silfurs í hønd þeirra manna, sem verkid vinna, ad þad lagt verdi í Konúngsins fjárhyrdslu. 10. Þá dróg Konúngurinn sinn hríng af hendi sér, og fékk hann Aman, syni Ham-Medata, Agagitanum, óvini Gydínganna, 11. og Konúngurinn sagdi vid Aman: þad silfur skal vera þér géfid, og þar ad auk fólkid, ad þú gjørir vid þad hvad þér lítst.

12. Þá voru á þrettánda degi þess fyrsta mánadar samankalladir skrifarar Konúngsins, og var þá skrifad til Konúngsins høfdíngja þad, sem Aman skipadi, einnig til lénsherranna í hvørju landi, og til høfdíngja sérhvørrar þjódar í øllum løndunum, eptir skrift og túngumáli sérhvørs fólks, undir nafni Assverus Kóngs, og þad innsiglad med Konúngsins hríng. 13. Og þessi bréf voru send med hlaupurum um øll Konúngsins lønd, ad eydileggjast, drepast og myrdast skyldu allir, bædi úngir og gamlir, Gydíngar, bædi børn og konur á einum degi, á þrettánda degi þess tólfta mánadar, sem er mánudurinn Adar; og ræna skyldi einnig fjármunum þeirra. 14. Bréfs efnid var: ad skipa skyldi øllum løndum ad byrta þetta øllu fólki, svo þad vidbúid væri á einum og sama degi. 15. Og hlauprarnir fóru eptir skipan Kóngsins, med hrada af stad; og þetta bod var útgéfid á slotinu Susan, og Kóngurinn og Aman sátu og drukku, en borgin Susan var í uppnámi.

## 4. Kapítuli.

Segir frá hrigd Gydínga útaf þeirri grimmu skipan, er Assverus Kóngur lét útgéfa.

1. Þá Mardokeus vard áskynja alls þess er skéd var, þá reif hann klædi sín og íklærdi sig sekk og øsku, og gékk útí midja borgina og grét hástøfum og aumlega, 2. og kom fyrir Kóngs portid, því eingum leifdist ad gánga inn um þad Konúnglega port, er sekk var í klæddur. 3. Og í øllum þeim løndum og borgum, hvar ord og skipan Konúngsins var auglýst, vard mikill harmur á medal Gydínga, og margir føstudu, grétu og syrgdu, og láu í sekk og øsku. 4. Þá komu þjónustu stúlkur og herbergis sveinar Esters og auglýstu henni þetta, þá vard Drottníngin mjøg óttaslegin, og sendi Mardokeus klædi er hann skyldi íklæra sig og fara úr sekknum, en hann vildi ei taka vid þeim. 5. Þá kalladi Ester Hatak til sín, einn af herbergis sveinum Kóngsins, er henni átti ad þjóna, og baud honum, áhrærandi Mardokeus, ad frétta hvad ágeingi og því hann léti svo. 6. Þá gékk Hatak út til Mardokeus, á þad stræti borgarinnar, er var fyrir utan Konúngsportid, 7. og Mardokeus sagdi honum allt sem honum var til handa komid, og frá þeirri summu silfurs, er Aman hafdi sagt ad hann vildi vega inní Kóngsins fjárhyrdslu sakir Gydínga, svo hann feingi þeim fyrirfarid, 8. og hann fékk honum útskrift af þeirri løgmáls skrá, er út var géfin í Susan, ad þá (Gydíngana) skyldi eydileggja, til þess ad hann sýndi Ester hana, og bodadi og bydi henni ad gánga fyrir Konúnginn, og bidja hann vægdar, og leita nádar hjá honum, fyrir sitt fólk. 9. Og þá Hatak

kom aptur og kunngjørdi Ester ord Mardokeus, 10. sagdi Ester vid Hatak, og skipadi honum (ad fara aptur) til Mardokeus (og segja): 11. øllum þjónum Kóngsins og fólkinu, í Kóngsins landi, er kunnugt, ad hvør sá madur edur kvinna, sem geingur fyrir Konúnginn inní þann innri forgard, án þess ad vera kalladur, skal strax deya, nema Konúngurinn rétti ad honum sína gullegu veldisspíru, (sem merki til þess) ad hann meigi lífinu halda, en í þrjátíu daga hefi eg ei verid køllud inn fyrir Konúnginn. 12. Og þessi ord Esters voru søgd Mardokeus. 13. Þá skipadi Mardokeus ad segja Ester: ekki skalt þú hugsa ad þú frelsir líf þitt fremur enn allir Gydíngar, fyrir þad ad þú ert í húsi Kóngsins. 14. Og þó þú á þessum tíma þeigir, þá mun Gydíngum samt koma frelsun og hjálp úr einhvørjum ødrum stad, en þú og hús fødur þíns mun fyrirfarast, og hvør veit nema þú sakir þessa atviks, sért til ríkis komin. 15. Þá baud Ester ad segja Mardokeus: 16. Far þú og samankalla alla Gydínga, sem nú eru í Súsan, og fastid þannig mín vegna, ad þér í þrjá daga hvørki etid né drekkid, hvørki dag né nótt; eg og þjónustumeyar mínar skulum einnig fásta, og eptir þad skal eg gánga inn fyrir Konúnginn, þótt løgin banni þad; ef eg dey, þá dey eg. 17. Mardokeus gékk þá burt, og gjørdi allt sem Ester hafdi bodid honum.

## 5. Kapítuli.

Ester geingur fyrir Kónginn og býdur honum ásamt Aman til veitslu; Aman vill ráda Mardokeum af lífi.

1. Og á þridja degi skrýddist Ester Konúnglegum skrúda og gékk inní þann innri forgard hjá Kóngshøllinni er gagnvart var Kóngshøllinni, og Konúngur sat í sínu Konúnglega hásæti, í høllinni gégnt húsdyrunum. 2. En þá Konúngurinn leit Ester Drottníngu standa í forgardinum, fann hún nád í augliti hans, og Kóngurinn rétti ad Ester þá gullegu veldisspíru, er hann hafdi sér í hendi, en hún gékk ad og snart oddinn á spírunni. 3. Þá sagdi Konúngurinn vid hana: Ester Drottníng! hvad (geingur ad) þér? og hvørs beidist þú? þó þú bidjir um helmíng míns ríkis, skal þér þad veitast. 4. Ester svaradi: þókknist Konúnginum, þá bid eg ad Konúngurinn komi í dag, ásamt Aman, til géstabods þess er eg hefi tilreidt honum. 5. Þá sagdi Kóngurinn: kallid skjótlega á Aman, svo hann gjøri þad sem Ester hefir umbedid; og þá Kóngurinn og Aman voru komnir til géstabods þess er Ester hafdi tilbúid, 6. sagdi Konúngurinn vid Ester, er hann hafdi vín drukkid: hvør er bæn þín Ester? hún mun veitast þér; eda hvad gyrnist þú? þó þad væri helmíngur míns ríkis, skal hann í té látinn. 7. Þá svaradi Ester og sagdi: bæn mín og beidni er sú: 8. hafi eg fundid nád hjá Konúnginum, og ef honum þókknast ad veita mér bæn mína og gjøra þad eg beidist, þá komi Konúngurinn og Aman til géstabods þess er eg vil þeim tilreida, og þá vil eg, ad morgni, gjøra sem Konúngurinn hefir sagt. 9. Og Aman gékk út á þeim degi gladur og af hjarta ánægdur: en sem hann leit Mardokeus í Kóngs-portinu, sem stód ei upp, né hrærdi sig, fyrir honum, þá reiddist hann stórlega vid Mardokeus. 10. En hann stilti sig samt, og þá hann kom heim, sendi hann út, og lét kalla til sín vini sína og konu sína Seres, 11. og Aman upptaldi fyrir þeim sína ríkdóms dýrd og fjølda sinna barna, og sagdi frá því hvørnig Konúngurinn hefdi miklad hann og upphafid yfir alla Kóngsins høfdíngja og þénara; 12. og enn fremur sagdi Aman: ekki lét Drottníng Ester nokkurn koma med Konúnginum til géstabods þess, er hún gjørdi, nema mig, og mér er líka bodid til

hennar á morgun med Konúnginum. 13. En allt fyrir það er eg þó ekki ánægdur á medan eg sje Gydínginn Mardokeus sitja í Kóngs portinu. 14. Þá svaradi kona hans Seres honum og allir vinir hans: láttu reisa fimtíu álna hátt tré, og seg Konúnginum á morgun, ad Mardokeus verdi heingur á því, og kémur þú þá gladur til géstabodsins med Konúnginum. Þetta féll Aman vel í géd og lét reisa tréd.

## 6. Kapítuli.

Mardokeus fær sæmd af Konúnginum.

1. En þessa sömu nótt gat Konúngurinn ekki sofid, og sagdi ad koma med annála- og minnis-bækur; og þá verid var ad lesa þær fyrir Konúnginum, 2. þá hittist á það sem skrifad var, hvörnig Mardokeus hefdi sagt frá þeim tveimur herbergis sveinum Kóngsins medal dyravaktaranna Bigtan og Teres, sem höfdu ætlad sér ad leggja hönd á Assverus Kóng. 3. Og Kóngurinn sagdi: hvörja æru og upphefd höfum vér veitt Mardokeus fyrir þetta? þá sögdu smásveinar Kóngsins, er þjónudu honum: ekkért hefur hann feingid fyrir það. 4. Og Kóngurinn sagdi: hvör er í forgardinum? því Aman var kominn í þann ytri forgard Kóngs húsins, ad hann adspyrdi Kónginn: hvört heingja mætti Mardokeus á tré það, er hann hafdi reist handa honum. 5. Og smásveinar Kóngsins sögdu: sjá! Aman stendur í forgardinum; þá sagdi Kóngurinn: látid hann koma inn híngad. 6. En sem Aman var inn kominn, sagdi Kóngurinn vid hann: hvad skal þeim manni gjöra er Kóngurinn vill heidur sýna? En Aman hugsadi med sjálfum sér: hvörjum mun Kóngurinn vilja fremur heidur sýna enn mér? 7. Og Aman sagdi vid Kónginn: sá madur sem Konúngurinn vill sýna heidur, 8. sé sóktur og íklæddur þeim Konúnglega skrúda, sem Kóngurinn er vanur ad bera, og á þeim hesti sem Kóngurinn er vanur ad rída, og Kóngleg kóróna sé sett á hans höfud. 9. Og skrúdinn og hesturinn sé hvörtveggja í hendur feingid einum af þeim ædstu höfdíngjum Kóngsins, og menn íklædi þann mann er Kóngurinn vill heidur sýna, og leidi hestinn undir honum um stræti borgarinnar, og úthrópi fyrir honum: þannig skal fara med þann mann er Kóngurinn vill gjarnsamlega heidur sýna. 10. Þá sagdi Kóngurinn vid Aman: tak skjótlega skrúdann og hestinn, samkvæmt ordum þínum, og gjör eins og þú hefir mælt, vid Gydínginn Mardokeus, sem hér situr í Kóngs portinu, og lát ekkért vanta af öllu því sem þú talad hefir. 11. Þá tók Aman bædi skrúdan og hestinn og íklæddi Mardokeus og leiddi hann (hestinn) um stræti borgarinnar og hrópadi fyrir honum: þannig skal vid þann mann gjöra sem Kóngurinn vill heidur sýna. 12. Og Mardokeus kom aptur í Konúngs-portid, en Aman fór sem skjótast heim í sitt hús hriggur og med huldu höfdi. 13. Og hann sagdi konu sinni Seres og öllum vinum sínum frá öllu því sem fyrir hann hafdi komid; þá sögdu vid hann þeir hyggnu (vinir) og kona hans, Seres: ef Mardokeus er af Gydínga ætt fyrir hvörjum þú ert farinn ad falla, þá megnar þú ekkért á móti honum, heldur muntu hljóta ad falla fyrir honum. 14. En á medan þeir voru enn nú ad tala þetta vid hann, þá komu þángad herbergis sveinar Kóngsins og höfdu hrada á sér ad sækja Aman, ad hann kjæmi til géstabods þess sem Ester hafdi gjöra látid.

## 7. Kapítuli.

Aman er heingdur.

1. Og svo komu þeir Konúngurinn og Aman til ad drekka hjá Ester drottníngu, 2. og Konúngurinn sagdi einnig á þessum ödrum degi vid Ester, vid víndrykkjuna: hvörs beidist þú Ester drottníng? það skal þér veitt verda;

og um hvad bidur þú? þó þad væri helmíngur míns ríkis, skal þad ské. 3. Ester drottníng svaradi og sagdi: hafi eg fundid nád hjá þér Konúngur! og ef Konúnginum er þad ljúft, þá géfist mér mitt' líf vegna minnar bænar, og fólki mínu vegna minnar beidni. 4. Því vér erum seldir, bædi eg og fólk mitt til eydileggíngar, dráps og dauda, og ef ad vér værum seldir ad eins til ad verda þrælar og ambáttir, svo munda eg þeigja; en óvinurinn gétur ei bætt skadann Kónginum. 5. Þá mælti Assverus Kóngur og sagdi vid Ester drottníngu: hvør er sá? eda hvar er sá sem vogar ad gjøra slíkt? 6. Ester svaradi: sá óvinur og mótstødumadur er þessi vondi Aman; en Aman vard hræddur vid Kóng og drottníngu. 7. Og Kóngurinn stód upp frá víndrykkjunni (géstabodinu og víninu) í reidi, og gékk í aldingardinn hjá høllinni; og Aman stód eptir til ad bidja Ester drottníngu um líf sitt, því hann sá sér nú ólukku búna af Kónginum. 8. Og þá Kóngurinn kom aptur, úr aldingardinum sem var hjá høllinni, inní bordsalinn, þá lá Aman á bekk þeim sem Ester sat á; þá sagdi Kóngurinn: mun hann einnig vilja beita ofbeldi vid drottnínguna hér í húsinu hjá mér? Þegar Kóngurinn hafdi þetta talad, þá huldu þeir ásjónu Amans. 9. Þá sagdi Harbona einn af herbergis sveinum Kóngsins: sjáid! tré eitt stendur í gardinum, sem Aman lét gjøra, handa Mardokeus, hvør ed gott taladi fyrir Kónginum, þad stendur hjá Amans húsi, fimtíu álna hátt; þá sagdi Kóngurinn: heingid hann á þad. 10. Og þeir heingdu Aman á þad tré, sem hann hafdi látid reisa handa Mardokeus og þá rann Konúnginum reidin.

## 8. Kapituli.

Gydíngar fá leyfi hjá Kónginum til ad taka hefnd á óvinum sínum.

1. Á þessum sama degi gaf Assverus Kóngur Ester drottníngu hús Amans, óvinar Gydínganna; og Mardokeus kom fyrir Konúnginn, því Ester hafdi sagt honum, hvørsu hann væri sér vandabundinn. 2. Og Kóngurinn dróg af hendi sér fíngurgull sitt, sem hann hafdi tekid af Aman, og gaf þad Mardokeus; og Ester setti Mardokeus yfir Amans hús. 3. Og Ester taladi enn fremur vid Kónginn og féll honum til fóta og bad grátandi, ad hann vildi ónýta íllsku Amans Agagitans, og áform þad er hann hafdi upphugsad, Gydíngum til tjóns. 4. Og Kóngurinn rétti ad Ester ena gullegu spýru; þá stód Ester upp og gékk fyrir Konúnginn, 5. og mælti: ef Konúnginum þad þóknast, og hafi eg nád fundid hjá honum, og sé Konúnginum þad ei ógédfeldt, og ef eg þóknast honum: þá sé skrifad, til ad apturkalla rádagjørd Amans sonar Ham-Medata Agagita, sem hann skrifadi, svo ad Gydínga fólk yrdi í øllum løndum Konúngsins, afmád. 6. Því hvørnig fæ eg horft á ólukku þá er koma mun yfir mitt fólk? eda hvørnig gét eg horft á þad, ad ætt mín eydileggist? 7. Og Assverus Konúngur sagdi vid Ester drottníngu og Gydínginn Mardokeus: sjá! eg hefi nú géfid Ester hús Amans, en hann sjálfur er á gálga heingdur, fyrir þad, ad hann lagdi hendur á Gydínga. 8. En skrifid nú um Gydínga þad sem ykkur líkar í Kóngsins nafni og innsiglid med Kóngsins hríng, því allt sem í Kóngsins nafni er skrifad og med hans hríng innsiglad, verdur ei apturkallad; 9. þá voru strax kalladir skrifarar Konúngsins, á tuttugasta og þridja degi þridja mánadar, sem er mánudurinn Sivan, og var þá skrifad, allt eins og Mardokeus baud til Gydínga, til høfdíngjanna, til hirdstjóranna og høfudsmannanna í løndunum, frá Indíalandi allt til Mórlands, er var hundrad tuttugu og sjø lønd, og hvørju landi var skrifad eptir þess skrift, og hvørju fólki eptir þess

túngumáli og Gydíngum einnig eptir skrift og túngumáli þeirra. 10. Og hann (Mardokeus) skrifadi undir nafni Assverus Kóngs, og innsiglaði med hríng Konúngsins, og sendi bréfin med hlaupurum, á hestum, rídandi á gjædíngum, múlum, kaplasonum. 11. Konúngurinn leyfdi Gydíngum ad samansafnast hvar sem þeir væru í stødunum, til ad verja líf sitt, og ad afmá, drepa og deyda alla makt þess fólks og lands sem sýndi þeim fjandskap, þeirra børnum og kvinnum, og þeirra eignum ræna, 12. á einum degi í øllum løndum Assverus Kóngs, á þrettánda degi þess tólfta mánadar, sem er mánudurinn Adar. 13. Og innihald bréfsins, med hvørju géfin var skipan um øll lønd, var kunngjørt øllum þjódum, ad Gydíngar skyldu vidbúnir vera á þeim tiltekna degi ad hefna sín á óvinum sínum. 14. Og hlauparartnir á gjædíngunum og múldýrum rídandi, fóru eptir skipan Kóngsins, sem mest og hradast þeir máttu; og þessi skipan var á Súsan sloti útgéfin. 15. Og Mardokeus gékk út frá Konúnginum íklæddur bláum og hvítum Kónglegum klædum, og berandi møttul úr líni og purpura og stóra gullkórónu á høfdi sér: og í borginni Súsan vard gledi mikil og føgnudur; 16. og ljós upprann Gydíngum, og føgnudur, gledi og sæmd. 17. Og í øllum løndum og øllum borgum, og svo lángt sem ord og skipan Konúngsins nádi, var gledi og unadsemd medal Gydínga, géstabod og hátídis dagur, svo margir af landanna innbúum gjørdust Gydíngar, því ótti fyrir Gydíngum var kominn yfir þá.

## 9. Kapituli.

Gydíngar hefna sín á óvinum sínum, innsetja Hátídina Púrim.

1. Á þrettánda degi þess tólfta mánadar, sem er mánudurinn Adar, á hvørjum degi ord og skipan Kóngsins framkvæmdist; einmidt þann dag, þá óvinir Gydínga ætludu sér ad yfirfalla þá óvara, og þad fór svo ad Gydíngum var sagt ad rádast á sína óvini: 2. þá samansøfnudust Gydíngar í borgum sínum um øll lønd Assverus Kóngs, til ad leggja hønd á þá er þeim leitudu tjóns, og einginn gat stadid þeim á móti, þvíad ótti fyrir þeim var kominn yfir allt fólk. 3. Og allir høfudsmenn landsins, lénsherrar og landsstjórnarar og embættismenn Kóngsins, veittu Gydíngum lid, þvíad ótti fyrir Mardokeus var yfir þá kominn. 4. Því Mardokeus var mikill ordinn í húsi Kóngsins og hans rikti fór um øll lønd, því madurinn Mardokeus vard æ meiri og meiri; 5. og Gydíngar unnu á óvinum sínum med sverdi, drápu þá og tortíndu þeim, og breyttu eptir gédþekni vid sína haturs menn. 6. Og í høfud-borginni Súsan drápu og deyddu Gydíngar fim hundrud manns. 7. Og þaradauki drápu þeir einnig Parsandata og Dalfon. 8. Og Aspata og Pórata og Adalia og Aridata; 9. einnig Parmasta og Arissai og Aridai og Vaiesata; 10. tíu sonu Amans, sonar Medata, óvinar Gydínga, en ei løgdu þeir hønd á góts þeirra. 11. Og á þessum sama degi kom tala þeirra drepnu í borginni Súsam fyrir Konúng. 12. Og Konúngurinn sagdi vid Ester Drottníngu: Gydíngar hafa nú í borginni Súsan rádid af døgum og drepid fim hundrud manns, og 10 sonu Amans; hvad munu þeir á ødrum stødum gjørt hafa í Kóngsins løndum? hvørs krefst þú fremur? þad skal þér veitt verda; eda hvørs beidist þú enn fremur? 13. Og Ester svaradi: ef Konúngi er þad ei á móti, þá leyfi hann Gydíngum ad gjøra í borginni Súsan á morgun, eins og þeir hafa í dag gjørt, og ad þeir heingi uppá tréd þá tíu sonu Amans. 14. Og Konúngurinn baud ad svo skyldi vera; og þessi skipan var géfin í borginni Súsan, og Amans

tíu synir voru uppheingdir. 15. Og Gydíngar söfnudust líka saman í Súsan á fjórtánda degi Adars mánadar, og drápu þrjú hundrud manns í Súsan, en ei rœntu þeir fjármunum þeirra; 16. en adrir Gydíngar í löndum Kóngsins samansöfnudust og vørdu líf sitt og feingu ró fyrir óvinum sínum, og drápu sjötíu og fim þúsundir óvina sinna, en á eignir þeirra lögdu þeir ekki hönd. 17. Þetta skédi á þrettánda degi Adars mánadar, en hvíld tóku þeir á fjórtánda degi sama mánadar, og gjørdu þann dag ad veitslu og gledi degi. 18. En Gydíngar í stadnum Súsan komu saman bædi á þrettánda og fjórtánda degi, en hvíldust á þeim fimtánda, á hvørjum þeir og héldu sér gledi og veitslu dag. 19. Því gjøra Gydíngar, sem búa á landsbygdinni og smábæum og kauptúnum, þann fjórtánda dag Adars mánadar ad gledi og veitslu og hátídar degi sínum; og senda þá hvørjir ödrum matgjafir; 20. og Mardokeus skrásetti þessa gjørnínga, og sendi bréf til allra Gydínga í øllum löndum Asverus Kóngs bædi nær og fjær, 21. ad þeir árlega skyldu halda hátíd þann fjórtánda og fimtánda dag Adars mánadar, 22. þá daga, á hvørjum Gydíngar höfdu feingid ró fyrir sínum óvinum, og í þeim sama mánudi, á hvørjum hørmúng þeirra snéríst í fögnud og sorg í gledidag, og ad þeir skyldu halda sér þá, fyrir gledi og veitslu daga, og senda þá hvør ødrum matgjafir og fátœkum ölmusu; 23. og Gydíngar vidtóku ad gjøra þad sem þeir höfdu uppbyrjad, og þad sem Mardokeus hafdi þeim skrifad. 24. Aman sonur Medata Agagíta, óvinur allra Gydínga, hafdi hugsad upp rád, nl. ad afmá alla Gydínga og kasta Púr þ. e. hlutfalli, ad afmá og tortína þeim, 25. og þá hún (Ester) gékk fyrir Konúnginn, skipadi hann med bréfi, ad hinn vondi ásetníngur, sem hann (Aman) hafdi Gydíngum fyrirhugad, skyldi koma honum í koll, og hann og synir hans voru heingdir á tré. 26. Þessvegna kølludu þeir þessa daga Púrim, af nafninu Púr (hlutfall); þar fyrir eptir øllum ordum þessa bréfs, og af því er þeir sjálfir sjed höfdu og fyrir þá hafdi komid, 27. fastsettu Gydíngar og hétu fyrir sig og sína eptirkomendur og alla þá er samlögudust þeim, ad ei yrdi yfirtrodid, ad halda árlega hátíd báda þessa daga, samkvæmt því sem skrifad og ákvardad var, 28. og ad þessir tveir dagar skyldu ei gleimast heldur í sérhvørjum ættlid þeirra og í sérhvørri ætt verda haldnir hátídlegir, í øllum löndum og borgum; og þessir Púrím dagar skyldu ei undir lok lída á medal Gydínga lýds, og minníng þeirra ei í gleimsku falla á medal nidja þeirra. 29. Og Ester Drottníng, dóttir Abihails, og Mardokeus Gydíngur, skrifudu med øllum mindugleika, til ad stadfesta þetta annad bréf um Purim (Púrims hátíd). 30. Og menn sendu bréfin til allra Gydínga í löndum Asverus Kóngs, (sem voru) hundrad tuttugu og sjø, med fridar og einlægnis (sannleiks) ordum, 31. til ad stadfesta þessa Púrims daga á fastsettum tíma, eins og Mardokeus Gydíngur og Ester Drottníng höfdu ákvardad þeim, og sem þeir höfdu undirgeingist og fastsett fyrir sig og nidja sína, þessa gjørnínga föstunnar og þeirra hróps a).

32. Og Ester Drottníng skipadi ad stadfesta þessa gjørnínga um Púrim, og þad var skrifad í bók (bókad).

## 10. Kapituli.

Um Mardokeus makt og mikilleika.

1. Og Asverus Kóngur lagdi skatt, bædi á landid og sjáfarins eyar. 2. En um alla gjørnínga hans veldis og maktar, og frásagan um

V. 31. *a.* Þá þeir föstudu og grátbændu Gud í háskanum, hafa þeir gjørt Gudi heit.

þá stóru vegsemd sem Kóngurinn veitti Mardo-
keus, er ad finna skrifad í Persíu og Medíu
Kónga annála bókum. 3. Því Mardokeus
Gydíngur gékk næstur Asverus Konúngi, og
var í miklu áliti á medal Gydínga, og vinsæll
hjá øllum fjølda sinna brædra, sem leitudu
heilla sínni þjód, og lagdi lidsyrdi øllu
sínu ættfólki.

# Jobs Bók.

## 1. Kapituli.

Job er lýst.

1. Madur nokkur var í landinu Us a).
Hann hét Job, hann var madur rádvandur
og hreinskilinn, óttadist Gud og fordadist íllt.
2. Hann átti sjø sonu og þrjár dætur, 3. og
hans fénadur var sjø þúsund sauda, þrjú þús-
und úlfalda, og fim hundrud pør nauta, og
fim hundrud øsnur, og mjøg mørg hjú. Sá
sami madur var hinn ríkasti á medal allra
austursíns sona. 4. En synir hans voru van-
ir því ad hafa heimbod hvør í sínu húsi, á
sínum afmælisdegi, þeir budu þá sínum þrem-
ur systrum ad eta og drekka med sér. 5.
En þá þessir veitsludagar voru lidnir, var
þad sidur Jobs, ad hann sendi, og helgadi þau,
þ. e. børnin, fór snemma á fætur, og offradi
eins mørgum brennifórnum og børnin voru
mørg; því Job hugsadi: ské má ad børn mín
hafi syndgad og gleymt Gudi. Þetta gjørdi
Job ávallt. 6. En þad bar til einn dag, þá
Guds børn geingu fram fyrir Drottinn, ad
(mótpartur) Satan kom og med þeim. 7.
Og Drottinn innti til vid Satan og spurdi:
hvadan komstu? en Satan svaradi og sagdi:
eg hefi farid og litid eptir øllu a jørdunni.
8. Þá sagdi Drottinn vid Satan: tókstu ept-
ir mínum þénara Job. Þar er einginn sem
hann á jørdunni, rádvandur og hreinskilinn,
sem óttast Gud og fordast hid illa. 9. Sat-
an ansadi Drottni og sagdi: ætla Job óttist
Gud fyrir ekkért? 10. Hefir þú ekki vardveitt
hann og hans hús á allar hlidar, og allt
hvad hann á? Hans handaverk hefir þú bless-
ad og hans fénadur fyllir landid. 11. En réttu
nú út þína høud, og kom þú vid allt sem hann
á; hvad um gildir; hann mun opinberlega seg-
ja skilid vid þig. 12. Og Drottinn sagdi til
Satans: sjá! allt hvad hann á, þad sé þér í
hendi, legg þú ad eins ekki hønd á hann!
þar eptir gékk Satan út frá Drottins augsýn.
13. Og þad skédi þann dag, sem synir og dæt-
ur Jobs átu og drukku vín í húsi síns frum-
gétna bródurs, 14. ad fregn kom til Jobs sem
sagdi: nautin drógu plóg, og øsnurnar voru á
beit í haganum þar hjá, 15. þá gjørdu þeir
Sabear árás, og rændu þeim, og þeir drápu
sveinana med beittum sverdum, en eg komst einn
undan til ad færa þér þessar fréttir. 16. Med-
an þessi enn nú var ad tala, kom annar og
sagdi: Guds eldur (eldíng) kom nidur af himni
og kveikti í fénu og sveinunum og fortærdi
þeim, en eg komst einn undan til ad segja þér
þetta. 17. Þessi var ei hættur ad segja frá,
þegar einn kom enn og sagdi: Kaldeumenn
komu í þremur flokkum, ysirféllu úlfaldana og
rændu þeim, og drápu sveinana med beittum
sverdum. Eg einn slapp til ad kunngjøra þér

V. 1. a. 1 Mós. 22, 21.

þetta. 18. Medan þessi enn nú taladi, kom enn einn og sagdi: þínir synir og þínar dætur átu og drukku vín í húsi síns frumgétna bródurs. 19. Og sjá! þar kom mikill stormur frá eydimørkinni, og lendti á húsins fjórum hornum, svo þad datt ofan á þín børn og þau dóu, eg aleinn komst burt til ad segja þér þetta. 20. Þá stód Job upp og sundurreif sín klædi, og klipti af sér hárid, fleygdi sér nidur á jørdina og bad og sagdi: 21. nakinn kom eg af módurlísi, nakinn mun eg aptur hédan fara. Drottinn gaf, Drottinn tók, lofad veri Drottins nafn! 22. Í øllu þessu syndgadi Job ekki, og ekki átaldi hann Gud fávíslega.

## 2. Kapítuli.

Jobs veiki og mótlæti.

1. Og þad bar til eitt sinn, þá Guds børn geingu fram fyrir Drottinn, ad Satan kom og med þeim, til ad gánga fram fyrir Drottinn. 2. Þá spurdi Drottinn Satan: hvadan komstu? Satan svaradi Drottni og sagdi: eg hefi farid um alla jørdina og litid eptir. 3. Og Drottinn sagdi til Satans: hefir þú tekid eptir mínum þénara Job? hans líki er ekki í landinu, rádvandur, hreinskilinn; hann óttast Gud og fordast hid illa, og enn þá er hann stadfastur í sinni gudrækni, þó þú hafir egnt mig móti honum, til ad gjøra honum tjón, án saka. 4. Satan ansadi Drottni og sagdi: húd fyrir húd, allt hvad madurinn á, þad géfur hann fyrir sitt líf. 5. En réttu út þína hønd, og (snertu) kom þú vid hans bein og hold, hvad gyldir þad? hann mun opinberlega segja skilid vid þig. 6. Drottinn sagdi til Satans: sjá þú! hann sé í þinni hendi, en spara þó hans líf. 7. Þá fór Satan burt frá augliti Drottins, og sló Job med illum kýlum frá iljum allt til hvirfils. 8. Og Job tók skøfu, og skóf sig med henni, og settist í øsku. 9. Og hans húsfreya sagdi til hans: ertu enn nú stadfastur í þinni gudrækni? segdu nú skilid vid Gud, og fardu ad deya. 10. Og hann svaradi henni: þú talar sem fávísar konur tala. Fyrst vér høfum medtekid af Gudi hid góda, skulum vér þá ekki og medtaka hid vonda? Í øllu þessu syndgadi Job ekki med sínum vørum.

11. Og þrír vinir Jobs fréttu alla þá ólukku sem yfir hann var kominn, og þeir komu hvør frá sínum stad. Elífas frá Teman, Bildad frá Súah, og Sofar frá Naema, og þeim kom saman um, ad fara og sýna honum medaumkun og hugga hann, 12. og þá þeir upplyptu sínum augum álengdar, þekktu þeir hann ekki, og þeir hófu upp sína raust og grétu, og þeir sundurrifu, hvør sinn møttul, og jusu í loptid moldu yfir høfud sér. 13. Og þeir sátu med honum á jørdu í sjø daga og sjø nætur og einginn taladi vid hann eitt ord, því þeir sáu ad hans pína var harla mikil.

## 3. Kapítuli.

Jobs harmaklogun.

1. Eptir þad upplauk Job sínum munni, og bølvadi sínum fædíngardegi. 2. Og Job taladi og sagdi: 3. fyrirfarist sá dagur á hvørjum eg em fæddur, og sú nótt á hvørri sagt var: sveinbarn er gétid. 4. Sá dagur verdi ad mirkri, Gud géfi honum eingann gaum ofanad, ekki skíni nokkud ljós nidur á hann! 5. dimma og daudans skuggi taki hann, þykk ský byrgi hann, 6. dagsins skélfíng hrædi hann, og nóttina nefnil: á hvørri eg var gétinn, mirkrid taki hana! hún gledji sig ekki meir medal ársins daga, hún komi ekki framarí tølu mánadanna. 7. Sjá! sú nótt sé einmana (ófrjóssøm)! Ekkért fagnadar hróp heyrist á henni. 8. Dagsins særíngamenn formæli henni, þeir sem kunna ad vekja krókódíl (Leviatan)! 9. Stjørnurnar formirkvist í hennar røkkri; hún vænti ljóss, en

forgéfins, og hún sjái ekki morgunrodans geisla! 10. af því hún læsti ei fyrir mér dyrum módurlífsins, og fól ekki eymdina fyrir mínum augum. 11. Hví dó eg ekki í módurkvidi? hví uppgaf eg ekki andann strax sem eg var kominn af módurlífi? 12. Hvar fyrir var eg knésettur? hvar fyrir voru brjóst til reidu sem eg gat sogid? 13. Því annars lægi eg nú og væri kirr, 14. svæfi og hefdi hvíld, med Kóngunum og jardarinnar stjórnendum, sem byggja greptrunarborgir, 15. ellegar medal høfdíngja sem áttu gull og fylltu sín hús med silfri, 16. eda eg væri ei til, einsog falinn ótímabær burdur, einsog þau úngbørn sem ekki hafa sjed ljósid. 17. Þar (í grøfinni) hætta þeir ógudlegu ad geisa, og þar hvílast þeir ørmagna, 18. líka hafa bandíngjarnir þar ró, þeir heyra ekki undirþrykkjarans raust. 19. Þar eru smáir og stórir, og þrællinn er frí fyrir sínum herra. 20. Hvar fyrir gefur Gud ljósid þeim vesæla? hvarfyrir lífid þeim sorgbitnu? 21. þeim sem bída eptir daudanum, en til einkis, sem leita hans med meiri grædgi heldurenn þeir leita ad huldu fé. 22. Þeim, sem mundu gledjast og fagna ef þeir findu grøfina? 23. Hví þeim manni, sem eingin úrrædi hefir, sem Gud hefir innilokad svo hann kémst hvørgi. 24. Því fyrr enn eg smakka mitt braud, koma mín andvørp, og mitt kvein úthellist sem vatn. 25. Því hvør sú skélfíng, sem eg óttadist, er yfir mig komin, og þad sem mér ofbaud, þad hittir mig. 26. Aldrei er eg rólegur, aldrei kyrr, aldrei hvílist eg, órói er ávalt yfir mér.

## 4. Kapítuli.

Elífas talar.

1. Þá svaradi Elífas frá Teman og sagdi: 2. má tala ord vid þig? er þér þad til ama? og hvør gétur þó haldid sér frá ad tala? 3. Sjá! þú hefir uppørfad marga, og þreyttar hendur hefir þú styrkt. 4. Þitt tal hefir reist á fætur þá føllnu, og þeim skjálfandi knjám hefir þú géfid mátt. 5. En nú þegar rødin kémur ad þér, þá missir þú hug; þegar þad (illa) hittir þig, þá skélfist þú. 6. Er þetta þín gudhrædsla, þitt trúnadartraust, þetta þín von, og þín rádvendni? 7. Heyrdu kjæri! hugsadu þig um: hvør saklaus hefir nokkurntíma tortínst? og hvar hafa hinir hreinskilnu verid afmádir? 8. eins og eg hefi sjed, ad þeir sem plægdu rángindi, og sádu volædi, uppskáru einmidt hid sama; 9. fyrir Guds anda tortíndust þeir, og af anda hans nasa voru þeir eydilagdir. 10. Grenjan ljónsins, og hins grimma ljónsins, er nidurþøggud, og ljóns úngaanna tønnur verda sundurbrotnar. 11. Hid sterka ljón drepst, af því þad vantar brád, og úngar ljónsinnunnar tvístrast. 12. En fremur— eitt ord er heimuglega til mín komid, og mitt eyra hefir numid þad lága hljód, 13. þegar eg hugleiddi sýnina á nóttunni; um þad leiti sem djúpur svefn kémur yfir menn, 14. þá kom ótti og skélfíng yfir mig og øll mín bein nøtrudu, 15. og þá andinn kom fyrir mitt auglit, reistu sig hárin á mínum líkama. 16. Þar stód hann, fyrir mínum augum — eg þekkti ekki myndina, hljódt var, og eg heyrdi raust, sem sagdi: 17. mundi madurinn vera réttlátur fyrir Gudi, ellegar nokkur hreinn fyrir Skaparanum? 18. Sjá! hann má ei ætla uppá sína þénara, brest finnur hann hjá sínum englum (sendibodum). 19. Hvørsu miklu framar hjá þeim sem búa í leirhúsum, hvørra grundvøllur ad er rik, þeir eydast sem af møl, 20. á einum degi frá morgni til kvølds sundurmolast þeir, og fyrr enn vid er litid, tortínast þeir gjørsamlega, 21. Jafnvel þeir ypparlegustu medal þeirra, ætla þeir tortínist ekki? þeir deya, en ekki med vísdómi.

## 5. Kapítuli.

Sama efni.

1. Kalla þú, ætla nokkur svari þér? og til

hvørs af þeim heilögu viltu leita? 2. Sannarlega drepur reidin heimskíngjann, og øfundin þann fávísa. 3. Eg sá heimskíngjann fá djúpar rætur, og eg formælti hans húsi skyndilega; 4. lángt frá bjargrædi voru hans børn, þau voru sundurtrodin fyrir rétti, og einginn bjargadi þeim. 5. Hinn húngradi uppát hans uppskéru, já, allt ad þyrnunum svipti hann henni burt. Þeir þyrstu uppsvelgdu hans eigur, 6. því ránglætid vex ekki uppúr moldinni, og eymdin sprettur ekki upp af jørdunni. 7. En madurinn fædist til eymdanna, eins og fuglsins úngar til ad fljúga í loptinu. 8. En eg mundi leita Guds, og á Guds dóm leggja mitt málefni, 9. hans, sem gjørir mikla hluti, er ei verda ransakadir, dásemdarverk, sem ei verdur tølu á komid, 10. hans, sem géfur regn á jørdu, og sendir vatn yfir vellina; 11. sem setur þá lágu hátt og gledur af þeim sem gánga í sorgar búníngi. 12. Til hans sem gjørir ad eingu rádabrugg hinna slægu, svoad þeirra høndur géta ei framkvæmt, þá snidugu hugsan, 13. sem fángar þá snidugu í þeirra slægd, svo ad rád hinna kjænu kollsteypast. 14. Á daginn reka þeir sig á myrkrid og þreifa fyrir sér, eins og á nóttu, um midjann dag. 15. Og hann frelsar þann fátæka frá sverdi, frá gini þeirra og frá hendi þeirra sterku. 16. Þannig er von fyrir hinn audvirdilega, og ránglætid má halda sínum munni.

17. Sjá! sæll er sá madur sem Gud hirtir, met ei lítils hirtíngu hins Almáttuga. 18. Því hann lætur manninn kénna til, en bindur um; hann særir, en hans hønd læknar (líka). 19. Hann mun frelsa þig úr sex hættum, og í þeirri sjøundu skal ólukkan ekki ná til þín. 20. Í dírtídinni mun hann frelsa þig frá daudanum, og í strídinu frá sverdsins hønd (ofbeldi). 21. Fyrir túngunnar svipu skaltu vera falinn, og ekki óttast eydileggíngu, þá hún kémur. 22. Þú skalt géta hlegid ad eydileggíngu og húngri, og ekki hrædast villudýrin í landinu. 23. Því vid steina akursins muntu hafa sáttmála, og skógarins villudýr munu hafa frid vid þig; 24. þú skalt reyna ad fridur er í þínum tjaldbúdum; þú munt koma til þíns bústadar, og þín von ekki bregdast. 25. Þú munt reyna ad þitt sád margfaldast, og nidjar þínir sem gras á jørdu? 26. Sem øldúngur munt þú nidurstíga í grøfina, eins og kornbindinid er á sínum tíma látid í hløduna. 27. Sjá! þetta høfum vér útgrundad, svona er þad; heyr þú þad, og set þad vel á þig.

## 6. Kapítuli.

Job svarar.

1. En Job svaradi og sagdi: ó! ad mín sorg væri vegin, 2. og mín ólukka líka løgd á metaskálina! 3. Hún mundi reynast þýngri enn hafsins sandur; því voru mín ord svo svæsin, 4. af því ad skeiti hins Almáttuga hafa hitt mig; mitt hjarta drekkur þeirra eytur; Guds skélfíngar herthygjast á móti mér. 5. Mun skógar asninn rymja uppyfir grasinu, eda uxinn gaula uppyfir sínu fódri? 6. Verdur þad bragdlausa etid án salts? eda er nokkur smekkur þess hvíta í egginu. 7. Þad sem mín sál veigradi sér vid ad snerta, þad er mér bodid sem leid fæda. 8. O! ad þad mætti ské sem eg girnist! og Gud vildi veita mér mína laungun. 9. O! ad Gud vildi sundurmerja mig, útrétta sína hønd og afsnída mig. 10. Þad væri þó mín huggun, og þar af skyldi eg gledjast í minni vægdarlausu kvøl, ad eg hefi samt ekki óhlýdnast ordum hins heilaga. 11. Hvør er minn máttur ad eg skyldi vona, og hvør mín kjør, ad eg skyldi hafa lánglundargéd? 12. Er þá minn kraptur steinsins kraptur? er mitt hold af eiri? 13. Sjá! fyrir mig er eingin hjálp eptir! og frá mér er burt-

rekin øll lidsemd. 14. Sá aumi á medaumkun ad sínum vin, annars yfirgéfur Guds óttinn hann. 15. Mínir brædur hafa brugdist mér eins og lækur (á sumri), sem þornar þegar mest á liggur, þeir fara fram eins og fjallrensli, 16. sem eru svørt af klaka, hvar vid mikill snjór hefur blandast. 17. Undir eins og leysíngin er úti hverfa þau, þegar hitnar (í vedrinu) afmást þau af sínum stad. 18. Lestirnar beigja af leid til þeirra; þær fara inní øræfin (til einkis) og tortínast. 19. Ad þeim svipast lestirnar frá Tema, þeir sem ferdast frá Sabeu treysta á þau. 20. Þeir sneypast af því ad þeir reiddu sig á þau, þeir koma ad þeim og skammast sín. 21. Svoleidis erud þér nú mér sem ekkért; þér sjáid mína eymd og hrædist. 22. Hefi eg sagt: færid híngad! eda géfid nokkud af ydar eigum fyrir mína skuld? 23. Frelsíd mig af hendi óvinarins, og losíd mig úr hendi týrannans.

24. Kénnid mér! eg skal þegja, og segid mér í hvørju mér hefir á ordid. 25. Hvørsu styrkjandi er tal hins einlæga? en hvad munu ydar átølur stoda? 26. Ad finna ad ordum, er ydar sýslan, tal hins sorgbitna fer úti vedur og vind. 27. Sannarlega yfirfallid þér hinn fødurlausa, og grafid grøf ydar stallbródur, 28. skodid mig ad eins, og þér munud strax sjá, hvørt eg lýg. 29. Hverfid til baka, kjæru! verid ad eins ekki ránglátir! Hverfid til baka, en nú mun mitt málefni reynast rétt. 30. Ætla ránglæti sé á minni túngu? nei! ætla minn gómur þekki ekki þad sem biturt er!

## 7. Kapituli.

Job talar enn fremur.

1. Er madurinn ekki í strídi á jørdinni? og eru ei hans dagar eins og daglaunamannsins dagar? 2. Eins og þrælinn lángar í skugga og eins og daglaunamadurinn væntir launa fyrir sitt verk, 3. svoleidis hefi eg fengid í mína hlutdeild þreingíngar mánudi, og mædunnar nætur eru mér taldar. 4. Leggi eg mig fyrir, þá segi eg: nær mun eg fara á fætur? nær mun nóttin úti? og eg mettast af órólegum biltíngum (í rúminu) þángad til aptur eldir. 5. Mitt hold er þakid ormum og moldar skán, valla er mín húd gróin, fyrr enn hún aptur fyllist kýlum. 6. Mínir dagar eru skjórar burtflognir enn vefjar skyttan; og þeir eru hvorfnir án vonar. 7. Hugleid þú ad mitt líf er andardráttur, mitt auga mun ei optar sjá góda daga. 8. Þad auga sem sjer mig nú, mun ei sjá mig framar, þín augu munu snúa sér ad mér, en eg mun ei finnast. 9. Skýid fer áfram og hverfur; svo mun ei heldur sá koma aptur, sem nidurstígur í grøfina. 10. Hann mun ei aptur hverfa í sitt hús, og hans stadur fær hann ekki aptur ad sjá. 11. Því vil eg ekki heldur leggja taum vid mína túngu, eg vil tala í ángist míns anda, eg vil kveina í biturleik minnar sálar. 12. Er eg haf, eda hafs óvættur, ad þú setur vakt yfir mig? 13. Þegar eg segi: mitt rúm skal hugga mig, mín hvíla skal sefa mitt kvein, 14. þá hrædir þú mig í draumi og med sýn skélfir þú mig, 15. svo ad mín sál vill heldur kjæfast, já heldur deya enn ad mín bein pínist þannig. 16. Eg dregst upp, eilíflega mun eg ekki lifa, sleptu mér! því mínir dagar eru andartak. 17. Hvad er madurinn, ad þú skyldir meta hann mikils, géfa honum gaum? 18. Ad þú skyldir heimsækja hann á hvørjum morgni? prófa hann á hvørju augnabliki? 19. Hvørsu leingi viltu, aldrei hafa af mér augun. Viltu ekki leifa mér ad hafa ró medan eg nidursvelgi munnvatninu? 20. Þó eg hafi syndgad, hvad ætla eg hafi gjørt þér, þú mannanna vaktari! því hefir þú gjørt mig ad ásteitíngu fyrir þig, svo ad eg verdi mér sjálfum ad byrdi. 21. Og hvørs

vegna viltu ei fyrirgéfa mér mínar yfirtrodslur og burttaka mína synda sekt? Því eg mun nú brádum liggja í moldinni, og þegar þú leitar ad mér um morguninn, mun eg ekki finnast.

## 8. Kapituli.

Tala Bildads.

1. Þá svaradi Bildad frá Sua og sagdi: 2. ætlar þú leingi ad tala svona? og hvørsu leingi skal tal þíns munns áfram fara sem megnt stormvidri? 3. Ætla ad Gud haggi réttinum? mun sá almáttugi raska réttvísinni? 4. Hafi þínir synir syndgad móti honum, þá hefir hann útskúfad þeim fyrir þeirra yfirtrodslur. 5. En þegar þú (í tíma) leitar Guds, og bidur þann almáttuga um nád, 6. og þegar þú ert hreinn og einlægur, þá mun hann snúa sér til þín, og gjøra lukkulegann þinn réttláta bústad. 7. Og þad sem þú áttir ádur mun sýnast lítid, og seinni tíminn skal veita þér næsta mikid. 8. Spyr þó, kjæri! þá fyrri kynslód, og undirbú þig til ad taka eptir því sem forfedurnir hafa útgrundad. 9. (Því vér urdum til í gjær og vitum ekkért, skuggi eru vorir dagar á jørdunni). 10. Þeir munu kénna þér og segja þér þad (og þeirra tal kémur frá hjartanu). 11. Gétur pappírsjurtin vaxid án vætu? eda sefid án vatns? 12. Medan þad enn nú er í gródri, og þó því sé ekki upprikt, mun þad uppþorna fyrr enn allt gras, 13. svo eru vegir allra þeirra sem gleyma Gudi og von hræsnarans mun tapast. 14. Því hans athvarf verdur burttekid og sem kóngulóar-vefur er hans traust; 15. hann reidir sig á sitt hús, en þad stendur ekki, hann heldur sér til þess, en þad stendur ekki fast. 16. Hann grænkar á móti sólinni, og útbreidir sínar greinir yfir allan gardinn; 17. hans rætur flækjast um sorphauga, og lenda í grýttum jardveg. 18. Þegar honum þá verdur upprikt frá sínum stad, þá mun sá stadur afneita honum og segja: eg sá þig ekki. 19. Sjá! þetta er gledi hans vega! og adrir munu þar uppvaxa af jørdunni. 20. Sjá! Gud útskúfar ekki þeim rádvanda og tekur ekki í hønd þeirra vondu; 21. en hann mun fylla þinn munn med hlátri, og þínar varir med fagnadar hrópi. 22. Þínir óvinir skulu þekjast med skømm, og tjaldbúd hinna ógudlegu skal ekki framar finnast.

## 9. Kapituli.

Jobs svar.

1. En Job svaradi og sagdi: 2. sannarlega veit eg ad þad er svo, og hvørnig mundi madurinn vera réttlátur fyrir Gudi? 3. Þóknist honum ad gánga í rétt vid hann, gétur madurinn ekki svarad einu (ordi) til þúsund. 4. Hann er vitur í hjarta og máttugur í krapti; 5. hvør þrjóskadist vid hann og hafdi frid? vid hann sem flytur fjøllin, svo þau vita ekki af, sem umveltir þeim í sinni reidi. 6. Hann, sem þokar jørdunni úr stad, svo hennar stodir bifast, 7. hann býdur sólinni ad hún renni ei upp, og innsiglar stjørnurnar (lætur þær ei sjást); 8. hann einn útbreidir himininn og geingur á hafsins øldum; 9. hann skapadi vagnstyrnid, freiu rokk, (orion) sjøstyrnid, og sudursins leynihús, 10. hann gjørir mikla hluti sem eru óransakanlegir og dásemdarverk, óteljandi. 11. Sjá! hann geingur framhjá mér, og eg sje hann ekki, hann fer áfram gagnvart mér, og eg verd ei var vid hann. 12. Sjá! vilji hann taka eitthvad, hvør bannar honum þad? Hvør mun segja vid hann: hvad gjørir þú? 13. Gud kallar ei aptur sína reidi, honum verda stallbrædur hins drambláta ad lúta. 14. Hvørnig mundi eg þá géta svarad honum? hvørnig valid mín ord móti honum? 15. Því þó eg væri réttlátur mundi eg ekki svara; heldur mundi eg bidja minn dómara um

nád. 16. Þó eg hrópadi og hann svaradi mér, mundi eg samt ekki trúa, ad hann snéri sínum eyrum til minnar raustar. 17. Því hann sundurmer mig med stormi, og margfaldar mín sár án orsaka. 18. Hann leyfir mér ekki ad draga andann, heldur mettar mig med beiskju. 19. Sé um krapt hins sterka spurt, sjá! hér er eg (segir hann), eda um rétt, hvør mun stefna mér? (segir Drottinn). 20. Þó eg hefdi rétt, minn munnur mundi fordæma mig, þó eg væri algjør, mundi hann fella mig. 21. Rádvandur er eg; mundi eg ei þekkja sjálfann mig? eg forsmái mitt líf. 22. Þetta eina segi eg því: hann afmáir þann rádvanda med þeim ógudlega. 23. Slái svipan snøgglega, þá mun hann hlæa ad reynslu hinna saklausu. 24. Jørdin er géfin í vald hinum (vondu) ógudlegu, hann byrgir aptur augu hennar dómenda. Sé þad ei hann, hvør er þad þá? 25. Mínir dagar lidu lidlegar áfram enn hlaupari (hleypur), þeir hlupu burt án þess ad sjá hid góda, 26. þeir eru farnir á fljótum skipum, eins og ørnin sem flýgur eptir æti; 27. þegar eg segi: eg vil gleima minni kvørtun; eg vil afleggja minn sorgar svip og endurnæra mig. 28. Þá má eg hrædast alla mína þjáníngu, því eg veit ad þú munt ekki dæma mig saklausann. 29. Lát mig þá vera sekann, hví vil eg gjøra mér ómak til einkis? 30. Þó ad eg laugadi mig í snjó-vatni, og hreinsadi mínar hendur med sápu, 31. dýfir þú mér nidur í forædid, svo ad mín føt verda mér ad vidurstygd; 32. því hann er ekki madur, eins og eg, ad eg géti svarad honum, ad vid gétum geingid saman fram fyrir réttinn. 33. Þar er einginn sem géti skorid úr þrætum milli okkar, sem géti lagt hønd á oss báda. 34. Hann taki sinn vønd frá mér og hans skélfíng áreiti mig ekki, 35. þá vil eg tala og ekki skélfast fyrir honum. Því þad er ekki svo, eins og þér hugsid, þad veit eg med sjálfum mér.

## 10. Kapítuli.

Jobs harmakløgun.

1. Minni sál leidist lífid, því vil eg láta lausa mína harmakløgun, eg vil tala um raunir minnar sálar. 2. Eg segi vid Gud: álíttu mig ógudlegann! láttu mig vita hvar um þú þráttar vid mig. 3. Sýnist þér þad gott ad þú misþirmir og útskúfar verki þinna handa, og ert hlidhollur vid rád hinna ógudlegu? 4. Ætla þú hafir holdleg augu? sjer þú eins og madurinn sjer a)? 5. Eru þínir dagar eins og mannsins dagar? eru, eins og mannsins dagar, þín ár? 6. ad þú spyr eptir mínum misgjørdum og leitar ad mínum syndum, 7. þó þú vitir ad eg hefi ekki breitt ógudlega, og ad þar er einginn sem géti frelsad úr þinni hendi.

8. Þínar hendur hafa skapad og myndad mig á alla vegu, og þó viltu tortína mér, 9. minnstu þess þó: ad þú myndadir mig sem leir, og vilt þú þá gjøra mig aptur ad dupti? 10. Hefir þú ekki hellt mér sem mjólk, og hleypt mig sem ost? 11. Holdi og hørundi klæddir þú mig, og med beinum og sínum samfestir þú mig. 12. Líf og nád veittir þú mér, og þín umsjón vardveitti minn andardrátt. 13. En þessir hlutir b) voru faldir í þínu hjarta, eg veit þeir voru þér í sinni. 14. Ef ad eg syndgadi þá gádir þú ad mér, og fríkenndir mig ekki fyrir mínum misgjørdum. 15. Breytti eg ógudlega, þá vei mér! og þó eg væri réttlátur, vogadi eg samt ekki ad upplypta mínu høfdi, mettur af forsmán, og vottur ad egin vesæld. 16. Ef eg reisti mig upp, þá rakstú mig á flótta sem ljón; aptur og aptur sýnir þú á mér ofbeldi. 17. Þú framleidir ný vitni á móti mér, og herdir á þinni

V. 4. *a.* Ekki betur enn menn sjá. V. 13. *b.* Sem eg nú reyni.

reidi vid mig. Hér eptir herfylkir þú á móti
mér. 18. Hví útleiddir þú mig af módurlífi?
æ! ad eg hefdi uppgéfid andann, og ad ekkért
auga hefdi sjed mig. 19. Eg mundi þá vera
sem eg hefdi aldrei verid til, frá módurlífi flutt-
ur til grafarinnar. 20. Mundu ei mínir fáu
dagar snart vera á enda? sleptu mér, ad eg
géti lítid eitt endurnært mig; 21. fyrr enn eg
fer burt (og kém ei aptur) í mirkursíns og daud-
ans skugga land. 22. Land dimt sem myrk-
ur daudans skugga, hvar eingin orda er, þad
sem geisar eins og myrkur.

## 11. Kapítuli.

Sofar talar.

1. Þá svaradi Sofar af Naema og sagdi:
2. skal ekki svara þessum orda fjølda? og skal
sá málugi madur hafa rétt? 3. Skal þitt
málædi koma fólki til ad þegja? skyldir þú spotta
og einginn sneypa þig? 4. Þú segir: sønn er mín
tala; og eg er hreinn fyrir þínum augum. 5. En
— ó ad Gud vildi tala, og uppljúka sínum vør-
um gégn þér! 6. Æ ad hann vildi kunngjøra
þér leyndardóm spekinnar (því þarí er tvøfaldur
kraptur) þá mundir þú kannast vid ad Gud
hefdi gjørt straff þitt léttara enn þinn mis-
verknad. 7. Munt þú géta jafnast vid Gud
í því ad ransaka? nád fullkomnun þess Al-
máttuga? 8. Hún er svo há sem himininn;
hvad viltu gjøra? hún er dýpri enn afgrunn-
id; hvad gétur þú vitad? 9. Viljir þú mæla
hana, þá er hún leingri enn jørdin og breidari
enn hafid. 10. Ef hann rædst á, hertekur eda
dregur fyrir rétt, hvør aptrar honum þar frá?
11. Því hann þekkir þá hégómlegu menn og
sjer þeirra ránglæti í kyrrþei. 12. Sá fávísi
madur lærir vísdóm, vidlíka og skógar asnans
folald fædist sem madur. 13. Hefdir þú snúid
þínu hjarta og útbreidt þínar hendur til hans,
sé ránglæti í þínum høndum, sett í fjærlægd,
14. sé þad ei látid stadnæmast í þínum tjaldbúdum,
15. þá muntu géta upplyft þínu augliti um-
vøndunarlaust; og þú munt standa fastur og
ei hrædast; 16. þá munt þú gleyma þinni eymd
og eins lítid til hennar muna, sem þess vatns,
er fram hjá er runnid. 17. Þér mun upp-
renna líf bjartara enn middegid, þitt myrkur
skal verda þér ad aptureldíngu. 18. Þú skalt
þá vera rólegur, því þar er von; þú skalt
vinna og sofa óhultur. 19. Þú munt leggja
þig án þess ad nokkur vilji ónáda þig; og
margir koma til þín og bidja þig. 20. En
augu hinna ógudlegu munu dapræst, og þeir
munu missa sitt hæli; því þeirra von mun
vera sem sálarinnar andvørp (andardráttur).

## 12. Kapítuli.

Job svarar.

1. Job svaradi þá og sagdi: 2. í sannleika—
þér hugsíd líklega ad þér einir séud menn, og
med ydur muni vísdómurinn deya! 3. eg hefi
þó vit eins og þér, mér skjátlar ekki meir enn
ykkur, og hvør veit ekki þesshá ttar hluti? 4.
Hvør sá sem er athlæi vinar síns, hann ákalli
Gud, og Gud mun svara honum. Sá rétt-
láti og rádvandi athlæi! 5. sá sem fall er búid,
hann er í huga hins ugglausa foraktadur lampi,
hentugur þeim sem rasar fæti. 6. Eydilegg-
jaranna tjaldbúdir eru óhultar, og þeirra sem
æda gégn Gudi, mikid tryggar, og svo þess
manns sem leiðir sér allt, hefir Gud sér í hendi.
7. Já, spyr þú dýrin ad því, þau skulu kénna
þér þad, og himinsins fugla, þeir skulu kunn-
gjøra þér þad. 8. Eda fréttu jørdina, hún skal
kénna þér þad, og fiskarnir í hafinu skulu segja
þér þad. 9. Hvør vissi þad ekki medal allra

V. 19. Þú munt verda mikill og ríkur madur. V. 20. Sem sálarinnar andvørp: eins fljótt og þad er gjort, ad taka hid seinasta andvarp, eins fljótt hverfur von þeirra ógudlegu.

þessara, ad Drottins hønd hefir gjørt þá?
10. í hvørs hendi ad er sál alls sem lifir, og
sá andi sem lífgar hvørs manns hold. 11.
Prófar eyrad ekki talid, eins og gómurinn
smakkar matinn? 12. Hjá þeim gømlu er vís-
dómur; 13. og lífdaganna leingd géfur skiln-
íng, hjá Gudi er vísdómur og veldi, honum
tilheyrir ráð og skilníngur. 14. Sjá! nidur-
brjóti hann, þá verdur þar ekki uppbyggt.
Læsi hann einhvørn mann inni, þá verdur ei
fyrir þeim sama upplokid. 15. Sjá! hann
stansar vatnid, og þad uppþornar; hann hleypir
því, og þad ummyndar jørdina. 16. Hjá honum
er styrkur og skynsemi. Undir hans valdi eru
bádir, sá sem villist og sá sem leidir afvega.
17. Hann fer med rádgjafana um kríng sem
fánga, og dómarana gjørir hann vitlausa a).
18. Hann leysir Kónganna bønd, og spennir
belti um þeirra lendar. 19. Hann fer med
prestana um kríng sem fánga; og þeim sterku
kollsteypir hann. 20. Hann tekur málid frá
þeim málsnjøllu og sviptir øldúngana þeirra
skynsemi. 21. Hann úthellir smán yfir høfd-
íngjana, og leysir belti kappanna. 22. Hann
opinberar leyndardóma myrkursins, og fram-
leidir daudans skugga fyrir ljósid. 23. Hann
fjølgar fólki, og fyrirfer því aptur, hann út-
breidir fólkid, og færir þad saman aptur. 24.
Hann burttekur hjartad (vitid) frá þjódanna
høfdíngjum í landinu, og lætur þá villast í
eydimørku, hvar einginn vegur er. 25. Svo
þeir fálma í myrkrinu án ljóss, og hann gjørir
þad, ad þeir ráfa, eins og sá drukkni.

## 13. Kapituli.

Job talar enn fremur.

1. Sjá! allt þetta hefir mitt auga skodad,
mitt eyra hefir heyrt og skilid þad. 2. Þad
sem þér vitid, þad veit eg líka; mér skjátlar
ekki meir enn ydur. 3. En eg vildi gjarnan
tala vid hinn almáttuga, og mig lángar til ad
gánga í rétt vid Gud. 4. Því sannarlega
samanvefid þér lygar; ónýtir læknarar erud þér
allir saman. 5. Ó! ad þér vildud allir þeig-
ja, þad mundi verda ydur ad vitsku. 6. Heyr-
id, kjæru! mína vørn, og takid eptir minna vara
adfindni. 7. Viljid þér tala Gudi til varnar, þad
sem rángt er? viljid þér fyrir hann brúka slægs-
muni? 8. Viljid þér fara í manngreinar álit,
taka hans málstad? 9. Ætla ydur verdi þad ad
gódu, þegar hann ransakar ydur? edur hugsid
þér ad draga hann á tálar, eins og menn eru
dregnir á tálar? 10. Hann mun vissulega straffa
ydur ef ad þér farid í manngreinar álit med
launúng. 11. Mun ekki hans hátign skélfa
ydur? og hans skélfíng falla yfir ydur? 12.
Ydar þánkar eru líkir øsku; ydar vígi munu
verda sem leirvígi. 13. Þeigid í minni á-
heyrn, ad eg meigi tala, og látid svo hitta
mig hvad sem vill. 14. Hví skal eg naga
mitt hold med eigin tønnum, og bera mitt líf
í minni hendi? 15. Sjá! látid hann slá mig
í hel; eg hefi einga von; en eg vil sanna fyr-
ir hans augsýn ad mínir vegir eru réttir. 16.
Þetta skal og verda mér til frelsis, því eing-
inn hræsnari kémur fyrir hans auglit. 17.
Svo takid nú eptir mínu tali og hneigid yd-
ar eyru ad mínu forsvari. 18. Sjáid kjæru!
eg hefi reglulega framfært mitt málefni, eg
veit ad eg verd fríkéndur. 19. Þó — hvør
er sá sem geingur í rétt vid mig? nú verd
eg ad þeigja og uppgéfa andann. 20. Eg
bid ad eins um tvennt; (synjir þú mér ekki um
þad), þá mun eg koma fram fyrir þig. 21.
Lát þína hønd vera lángt frá mér, og þína
skélfíngu ekki hræda mig! 22. Kalladu svo,
og eg skal svara, ellegar eg mun tala og svara
þú mér. 23. Hvørsu margar eru mínar mis-

V. 17. *a.* Géfur þeim frelsi og krapt. V. 21. Leysir belti, Þ. e. gjørir þá lingérda.

gjørdir og syndir? láttu mig vita mína yfir-trodslu og synd? 24. Hvar fyrir byrgir þú þitt andlit og heldur mig fyrir þinn óvin? 25. Viltu fordjarfa skékid laufblad, og offækja þurt strá; 26. þú uppskrifar harmkvæli móti mér, og lætur mig erfa mínar úngdóms syndir, 27. og setur mínar fætur í stokk, og adgjætir alla mína vegu, og slær hríng í kríngum mínar iljar, (sem eg ei kémst út yfir). 28. Og eg (Job) eldist þó sem hræid, sem fat þad er mølurinn uppetur.

## 14. Kapítuli.

Sama tala.

1. Madurinn af kvinnunni fæddur lifir stutta stund og mettast af órósemi. 2. Hann sprettur upp sem gras og følnar. Haun flýr sem skuggi, og stadnæmist ekki. 3. Og þú starir á þvílíkann einn, og dregur mig fyrir réttinn med þér! 4. Hvør gjørir hreinann úr óhreinum? Ekki einn einasti. 5. Séu hans dagar akvardadir, og hans mánada tala fastsett hjá þér, hafir þú afmælt hans tíd, sem hann gétur ekki yfirkomist, 6. þá vík þú frá honum svo hann géti feingid hvíld, þángad til hann, sem daglaunara lángar eptir sínum (dauda) degi. 7. Því tréd hefir von þegar þad er upphøggvid, ad þad aptur géti vaxid; og ad þad vanti ei greinir. 8. Þó þess rót eldist í jørdinni, og þess stofn deyi í duptinu, 9. svo grænkar þad aptur af vatnsins dampa, og fær greinir eins og ný planta. 10. En deyi madurinn liggur hann máttlaus; uppgéfi madurinn andann, hvar er hann þá? 11. Vatnid hleypur burt úr hafinu; áin mínkar og verdur þurr. 12. Svoleidis leggst madurinn fyrir og stendur ekki upp; þángad til himnarnir eru ekki meir, vaknar hann ekki og verdur ekki vakinn meir af sínum svefni. 13. Æ ad þú vildir geyma mig í grøfinni, og fela mig, þángad til þín reidi snýr sér! ó! ad þú vildir tiltaka vissan tíma fyrir mig, og þá aptur minnast mín. 14. Þegar madurinn deyr mun hann þá lifna vid aptur? þá mundi eg bída alla mína stríds daga, þángad til mín lausn kjæmi, 15. þá mundir þú kalla, og eg skyldi svara; þú mundir hafa yndi af þínum handaverkum. 16. En nú telur þú mín spor! gáir þú ekki ad mínum syndum? 17. Mínar syndir eru forsígladar í einum bagga; og þú hefir bætt nokkru vid mína sekt. 18. Fjall sem dettur um koll liggur þar sannarlega. Kletturinn steypist nidur frá sínum stad. 19. Vatnid holar steininn, og þess straumur, burtskolar jardarinnar dupti, svoleidis gjørir þú ad eingu mannanna von. 20. Því þú ber hann fullkomlega ofurlida, og hann fer burt; þú snýr vid hans andliti, og rekur hann burt. 21. Séu hans børn heidrud, hann veit þad ekki; séu þau fyrirlitin, hann fréttir þad ekki. 22. Hans eigid hold finnur ad eins til eigin pínu, og hans sál í honum kénnir til eigin sorgar.

## 15. Kapítuli.

Elífas svarar.

1. Þá svaradi Elífas af Teman og sagdi: 2. Á sá vitri madur ad svara med þekkíngu sem er ad eins varagustur, og fylla sitt brjóst med vindi? 3. (Á hann) ad strída med ordum sem ekkért kvedur ad, og med tali sem ekkért stodar hann? 4. Já, þú gjørir Guds óttann ad eingu, og fækkar bænum til Guds. 5. Þinn eiginn munnur prédikar (kénnir) þitt ránglæti, þó ad þú veljir ordfæri hinna slægu. 6. Þinn munnur dæmir þig, en eg ekki; þínar varir vitna á móti þér. 7. Ert þú sá fyrst fæddi madur, og ertú gétinn fyrr enn hædirnar? 8. Hefur þú hlýdt á í Guds leindarádi? eda hefir þú dreigid ad þér alla speki? 9. Hvad veitstú sem vér ei skyldum vita? Hvad

þekkir þú sem skyldi vera oss ókunnugt? 10.
Til eru gráhærdir menn og øldúngar vor á
medal, eldri enn fadir þinn. 11. Metur þú
lítils Guds huggun og þau blídu ord til þín?
12. Hvar fyrir hrífur þitt hjarta þig, og hví
tindra þín augu, 13. ad þú geisar svo gégn
Gudi, og framber slík ord af þínum vørum?
14. Hvad er madurinn ad hann skyldi vera
hreinn? eda ad sá skyldi vera réttlátur sem er
fæddur af kvinnu? 15. Sjá þú! hann ætlar
ei uppá sína heiløgu og himnarnir eru ekki hrein-
ir fyrir hans augum. 16. Enn sídur sá vid-
urstyggilegi og svívirdilegi, madurinn, sem drekk-
ur í sig ránglætid einsog vatn. 17. Eg vil
fræda þig, heyr þú mig! og þad sem eg hefi
reynt vil eg segja þér, 18. þad sem þeir vísu
kunngjørdu og duldu ekki, (erft) frá þeirra fedr-
um. 19. Hvørjum einum var landid géfid,
og einginn útlendur þreyngdi sér inn medal
þeirra. 20. Alla sína daga plágar sá ógud-
legi sig sjálfann, og fá ár eru tírannanum ætl-
ud. 21. Skélfíngar hljód er fyrir hans eyr-
um; jafnvel í fridi yfirfellur eydileggjarinn hann.
22. Hann trúir því ekki, ad hann géti komist
undan myrkrinu (ógjæfunni) og sjer allstadar
framundan sér sverd. 23. Hann flakkar um
kríng eptir braudi hvar sem þad er; hann veit
ad mirkursins dagur er honum reidubúinn. 24.
Angist og neyd skélfa hann, þær bera hann of-
urlida, sem Konúngur útbúinn til bardaga. 25.
Af því hann útrétti sína hønd gégn Gudi, og
gjørdi, med þrjótsku, uppreisn móti þeim al-
máttuga; 26. Gjørdi árás á hann med
(háu) høfdi og med þikkri skjaldarbúngu.
27. Því hans andlit er þakid spiki, og hans
lendar med situ, 28. þarfyrir býr hann í þeim
stødum sem ætladar eru til eydileggíngar; í hús-
um, sem einginn býr í, og sem skjótt umbreitast
í grjóthrúgu. 29. Hann mun ekki verda ríkur,
og hans góts ekki vardveitast; og hans velmeg-
an mun ekki útbreidast í landinu. 30. Hann
mun ekki undan myrkrinu sleppa; loginn mun
svída hans úngu greinir, og hann mun hverfa
fyrir Guds anda (áblæstri). 31. Hann reidi
sig ekki á hégómann, hann verdur tældur, 32.
því hégóminn skal verda hans verdkaup. Fyr-
ir tímann fær hann enda, og hans greinir
blómgast ei meir. 33. Eins og vínvidurinn
mun hann hrista af sér súr vínber; sem vidsmjørs-
vidurinn, missa sín blómstur, 34. því hræsnar-
anna hópur verdur einmana, og eldurinn eydir
tjaldbúdum þeirra sem taka mútur. 35. Þeir
gánga þúngadir med ólukku og fæda ránglæti,
og þeirra búkur undirbýr svik.

## 16. Kapítuli.

Job svarar.

1. Þá svaradi Job og sagdi: 2. margt þess-
háttar hefi eg heyrt; leidinlegir huggarar erud
þér allir saman. 3. Skulu ónytju ord eingann
enda hafa? eda hvad dyrfdi þig til ad tala
svona? 4. Eg gjæti líka talad eins og þér; eg
vildi þér værud í mínum sporum! Eg gjæti og
samanhrúgad ordum á móti ydur og hrist yfir
ydur høfudid; 5. eg mundi styrkja ydur med
munni mínum, og minna vara medaumkun
mundi lina ydar þjáníngu.

6. Þó eg tali, svíar ekki mín pína; og þó
eg þegi — ætla hún yfirgéfi mig? 7. Vissulega
ørþreytti hann mig; þú eydilagdir allt mitt hús.
8. Þú hefir gjørt mig hrukkóttann, og þad
vitnar móti mér; og mín megurd rís gégn mér
og veitir mér mótmæli. 9. Hans grimd sund-
urslítur mig, og hann hatar mig; hann nýstir
tønnum yfir mér, minn mótstødumadur starir á
mig med sínum augum. 10. Þeir sperra upp
munninn á móti mér; háduglega géfa þeir mér
kinnhesta, og gjøra samdrátt móti mér. 11.

V. 7. og 8. og flg. v: Hérum brúkast, eins og vídar, þessi ord: þú, hann, þeir, og mida þó øll til ens sama.

Gud gaf mig á vald hinna ránglátu og lét mig
komast í hendur hinna ógudlegu. 12. Eg hafdi
hagsæld, en hann steypti mér, tók um hálsinn
á mér og í sundurmuldi mig, og gjørdi mig ad
sínu skotmáli. 13. Hans skeyti umkríngdu mig,
hann sundurskar mín nýru vægdarlaust, hann
úthellti mínu galli á jørdina. 14. Hann særdi
mig sár í sár, og hljóp á mig sem strídshetja.
15. Þá saumadi eg sekk um mína húd, og huldi
mitt høfud med dupti. 16. Mitt andlit þrútn-
adi af gráti, og daudans skuggi breiddist yfir mín
augnalok. 17. Þó er ekkért ránglæti í minni
hendi, og mín bæn er hrein. 18. Þú jørd! hyl
ekki mitt blód! og ekkért pláts sé hvar mitt hróp
felist! 19. Sjá! ennþá er minn vottur á himn-
um og minn talsmadur í hædinni. 20. Mín-
ir vinir gjøra gis ad mér, mitt auga snýr sér til
Guds med gráti. 21. Æ ad madurinn gjæti
geingid í rétt vid Gud, eins og mannsins barn
vid sinn stallbródur! 22. Því þau fáu ár eru
senn á enda; svo fer eg þá leid, sem eg kém
ekki aptur.

## 17. Kapítuli.

Sama tala.

1. Minn andardráttur er úr lagi, mínir
dagar eru þrotnir, grafirnar eru framundan
mér. 2. Einginn nema spottarar eru hjá mér,
og mitt auga dvelur vid þeirra módganir. 3.
Heyrdu! þó einhvør vildi mæta hjá þér fyrir
mig, hvør er sem vill géfa mér hendina uppá
þad. 4. Því þessara hjørtum hefir þú læst
fyrir vísdómi; þarfyrir viltu ekki upphefja þá.
5. Hvør sem svíkur sína vini í hendur óvin-
anna, augu hans barna skulu ørmagnast.
6. Hann (Elífas) hefir gjørt mig ad ordskvid
medal fólksins, og mér er spítt í andlit. 7.
Því er mitt auga dapurt af gráti, og mínir
limir eru allir ordnir sem skuggi. 8. Af þessu
skélfast hinir rádvøndu og sá saklausi egnist til
á móti hræsnaranum. 9. Hinn réttláti skal
þó halda sína leid, og sá sem hefir hreinar
hendur skal verda enn fastari. 10. En þér
allir megid fara og koma aptur, kjæru! aldrei
finn eg einn hygginn medal ydar. 11. Mín-
ir dagar eru lidnir, mínar hugsanir sundurtætt-
ar, sem høfdu vald yfir mínu hjarta. 12.
Þeir gjøra nóttina ad degi, og segja: ljósid er
ekki lángt frá myrkrinu. 13. En eg bíd graf-
arinnar, míns húss; í myrkrinu bý eg um mig.
14. Vid rotnunina segi eg: þú ert mín mód-
ir! og vid madkinn: þú ert minn fadir og
minn bródir. 15. Hvar er þá mín huggun?
16. Hvad mína von áhrærir, hvør sjer hana?
Í grafarinnar einveru mun hún nidurstíga,
þegar vér allir hvílumst þar í duptinu.

## 18. Kapítuli.

Bildads ønnur tala.

1. Þá svaradi Bildad af Súa og sagdi:
2. nær viljid þér gjøra enda á talinu? gaum-
gæfid: eptirá skulum vér tala. 3. Hvar fyrir
erum vér reiknadir sem fé, sem óhreinir í ydar
augum. 4. Þú springur í þinni brædi; á
jørdin ad yfirgéfast søkum þín; 5. og bjargid
ad færast úr stad? ljós hins ógudlega skal slokkt
verda, og hans eld-neisti skal ekki tindra. 6.
Ljósid skal verda ad myrkri í hans tjaldbúd,
og hans lampi skal slokkna yfir honum. 7.
Ad hans øflugu sporum skal kreppast, og hans
rád skulu honum steypa. 8. Hann flytst í snør-
una af sínum eigin fótum, og hann geingur í
netid. 9. Møskvinn festist um hans hæl, og snar-
an herdist utan um hann. 10. Hún lá falin í
jørdu, og gildra lá á hans vegi. 11. Skélf-
íngar hræda hann allt um kríng, og keyra hann
áfram vid hvørt fótmál. 12. Hans kraptur
rénar af húngri, og ólukkan stendur reidubúin
vid hans hlid. 13. Hann etur limi síns lík-
ama, og daudans frumburdur fortærir hans
limum. 14. Honum verdur útrudt úr hans

tjaldbúd sem var hans athvarf, og hann verd-
ur leiddur fram fyrir skélfíngarinnar Konúng.
15. Þeir búa í tjaldbúdinni sem ekki framar
er hans. Brennisteini verdur sád yfir hans
bústad. 16. Nedan til uppþorna hans rætur;
ofantil visna hans greinir. 17. Hans minn-
íng afmáist úr landinu, og hans nafn nefnist ei
framar á strætunum (vøllunum). 18. Þeir
munu úthrinda honum frá ljósinu í myrkrid,
og burtreka hann af jardríki. 19. Eingann
son og eingann sonarson mun hann hafa medal
síns fólks, og einginn mun eptir verda í hans
bústødum. 20. Hans afdrif munu skélfa ept-
irkomendurnar, og hinir gømlu verda gagntekn-
ir af ofbodi, 21. já! svona eru bústadir hinna
ránglátu, hvílíkur stadur þess (manns) sem
gleymir Gudi.

## 19. Kapítuli.

Job svarar.

1. En Job svaradi og sagdi: 2. hvørsu
leingi viljid þér ángra mína sál og mylja mig
med ordum? 3. Tíusinnum hafid þér nú sví-
virdt mig. Þér skammist ydar ekki, ad fara
svona hardt ad mér; 4. og þó mér hafi sann-
arlega skjátlad, þá fer sú villa med mér. 5.
Vissulega ættud þér ad sannfæra mig um mína
svívirdu, þó þér vildud hrokast upp yfir mig.
6. Vitid samt, ad þad er Gud sem hefir nid-
urbeigt mig, og umkringt mig med sínu neti.
7. Sjá! eg hrópa, ad mer sé sýnt ofbeldi, og
einginn heyrir; eg kalla, og fæ ekki rétt. 8.
Hann hefir gyrdt fyrir minn veg, svo eg kémst
ekki yfir, og mína stigu hefir hann hulid med
mirkri. 9. Hann hefir afklædt mig mínum
heidri, hann tók af mér mína høfudprýdi. 10.
Hann eydilagdi mig á allar hlidar, svo eg er
farinn, og hann upprikti minni von eins og
ødru tré. 11. Hann tendradi sína reidi gégn
mér og áleit mig sem sinn óvin. 12. Hans
her kom samansafnadur og brautst ad mér, og
setti sínar herbúdir í kríngum mína tjaldbúd. 13.
Mína brædur fjærlægdi hann lángt frá
mér. Mínir kunníngjar eru ordnir mér ókunn-
ugir. 14. Mínir ættíngjar yfirgáfu mig
og mínir vinir hafa gleymt mér. 15. Mínir
þénarar og þernur álíta mig sem framandi; eg
em sem útlendíngur í þeirra augum. 16. Kalli
eg til míns þénara, ansar hann ekki; med allri
alúd verd eg ad bidja hann. 17. Minn and-
ardráttur er konu minni vidbjódslegur, og
eg er andstygd mínum eigin sonum. 18.
Sjálf børnin fyrirlíta mig; standi eg upp, tala
þau á móti mér, 19. alla mína innilegustu vini
stuggar vid mér, og þeir sem eg elskadi hafa
snúist á móti mér. 20. Mín bein límast vid
mitt hold og skinn, og valla hefi eg sloppid med
mitt tannhold. 21. Aumkist yfir mig! miskun-
id mér, þér mínir vinir! því hønd Guds hefir
snortid mig. 22. Hví ofsækid þér mig eins
og Gud, og gétid ei mettast af mínu holdi?
23. O! ad mín ord yrdu uppskrifud, ó! ad
þau mættu ritud verda í bók. 24. O! ad þau
væru grafin med járnstíl og med blýi á ein-
hvørn klettinn ad eilífu. 25. Því eg veit ad
minn frelsari lifir, ad hann mun leingst á jørd-
unni standa, 26. og þegar seinna meir mitt
skinn, þetta (hold) er farid, mun eg sjá Gud án
holds. 27. Já! hann einmidt mun eg sjá, mín
augu munu skoda hann og ekki einn annar.
Mín nýru eydast í mér (af laungun). 28.
Sannarlega munud þér segja: hví ofsóktum
vér hann? þared rótin til vorrar þrætu er
fundin hjá oss? 29. Ottist sverdid, því ædi verd-
skuldar sverd, ad þér vidurkénnid ad réttur er til.

## 20. Kapítuli.

Sofar talar aptur.

1. Þá svaradi Sofar af Naema og sagdi:
2. Svo neyda þá hugsanir mínar mig til ad

svara, og innvortis ólga. 3. Skammarlegar
ávítur hlýt eg ad heyra, en minn andi skal
svara fyrir mig med viti. 4. Veitstu ekki þad,
frá eilífd, sídan Gud setti manninn á jørdina,
5. ad gledi óp hinna ógudlegu er stutt; og ad
hræsnarans føgnudur varir ad eins eitt augna-
blik? 6. Þó ad hans hæd nædi til himins
og hans høfud snerti skýin, 7. sem saur hans
skal hann þó tortínast eilíflega, þeir sem sáu
hann, munu segja: hvar er hann? 8. Eins
og draumur mun hann burtflýa, og menn géta
ei fundid hann; hann hverfur sem sýn á nóttu.
9. Þad auga sem sá hann ádur, mun ei sjá
hann framar; og hans bústadur skal ei sjá hann.
10. Hans børn leitast vid ad gédjast þeim fá-
tæku, og þeirra hendur skila aptur hans eigum.
11. Hans bein eru þrútin af hans heimuglegu
syndum, med honum munu þær leggjast í dupt-
id. 12. Þó vondskan sé honum sæt í munni,
og hann vilji fela hana undir sínni túngu,
þó hann vilji treina hana, og ekki sleppa henni,
13. heldur geyma fyrir sinn góm, 14. skal
samt þessi fæda breitast í hans búk, hún skal í
honum verda ad nødrugalli. 15. Aud gleipti
hann, hann ælir honum upp aptur, Gud
mun keira hann úr hans búk. 16. Nødru
eytur sogar hann í sig, høggorms túngan mun
drepa hann. 17. Hann sjer ei sér til yndis
vatnsføll, ei ár né læki, sem fljóta fram med
mjólk og hunángi. 18. Hann lætur aptur af
hendi þad aflada, og gleipir ekkért framar.
Eins og ránid skal endurgjaldid vera,
og hann mun ei af því føgnud hafa; 19. af
því hann misþyrmdi þeim lítilmótlega og yfir-
gaf hann; rændi húsum sem hann hafdi ekki
byggt. 20. Af því hann aldrei gat saddur
ordid, mun hann ekki koma undan sínum díra
aud. 21. Vegna þess ad ekkért komst undan
hans grædgi, skal hann ei géta vænt ad sín
gjædi verdi varanleg. 22. Þó ad hann hafi
allsnægtir, lídur hann skort, sérhvørs undir-
þrikkjara hønd mun yfir hann koma. 23.
Hann fær samt nóg til ad fylla sinn búk med;
því Gud mun senda sína grimdarreidi yfir hann,
og láta yfir hann rigna þad sem hann í sig
svelgdi. 24. Flýi hann fyrir járnvopnum; eirbog-
inn gégnumborar hann. 25. Hann rikti sínu
sverdi, þad gékk í gégnum hans kvid, og þess
leiptran fór um hans gall. Daudans skélf-
íngar yfirféllu hann. 26. Allt ólán er geymt
hans aud; eldur sem ei er tendradur (af mønn-
um) mun fortæra honum; illa mun þeim reida
af, sem eptir eru ordnir í hans tjaldbúd. 27.
Himininn mun opinbera hans misgjørdir, og
jørdin mun rísa móti honum. 28. Agódi hans
heimilis mun burt flytjast — allt mun burt
fljóta á hefndarinnar degi. 29. Þetta er hlut-
deild hins ógudlega manns hjá Gudi, og þetta
sú arfleifd sem honum er af Drottni ætlud.

## 21. Kapítuli.

Job svarar.

1. Job svaradi og sagdi: 2. heyrid vendi-
lega mitt tal! og látid þad vera huggun
af ydar hendi! 3. hafid umburdarlyndi vid
mig medan eg er ad tala, og þegar eg er bú-
inn ad tala út, meigid þér gjøra ad mér gis.
4. Hefi eg (ad eins) kløgumál fyrir mønnum,
sé svo, hví skyldi þá ei minn andi verda ópol-
inmódur. 5. Snúid ydar andliti til mín og
skélfist! og leggid ydur hønd á munn! 6.
Því þegar eg hugsa til þess, þá hrædist eg,
og skjálfti kémur í mitt hold. 7. Hví lifa hinir
ógudlegu, verda gamlir, já, verda ákaflega ríkir?
8. Þeirra sædi stadfestist fyrir þeirra augsýn
vid þeirra hlid; og þeirra nidjar eru ávalt fyrir.
þeirra augum. 9. Þeirra hús eru óhult, án
hrædslu, og Guds hirtíngar vøndur er ekki á lopti
yfir þeim. 10. Þeirra naut eru frjóssøm og
bregdast ekki; þeirra kýr bera, og láta ekki

kálfi. 11. Þeir senda út eins og hjörð sína
nidja; og börn þeirra stökkva og leika sér. 12.
Þeir taka undir med trumbum og hörpum og
gledja sig vid Sitarsins hljóm! 13. þeir eyda sín-
um dögum í fögnudi; og á einu augnabliki nidur-
stíga þeir í gröfina. 14. Þó segja þeir vid
Gud: „vík þú frá oss! vér viljum ekki vita af
þínum vegum. 15. Hvör er sá Almáttugi,
ad vér skyldum þjóna honum? eda hvad stod-
ar oss þad ad bidja hann?" 16. Sjá! er
þeirra lukka ekki þeim í hendi? (rád þeirra ó-
gudlegu sé lángt frá mér). 17. Hvörsu opt
slokknar ljós hinna ógudlegu! og hvörsu opt
kémur ólukkan yfir þá, þegar Gud útbýtir þeim
sorg í sinni reidi. 18. Hvörsu opt verda þeir
sem strá fyrir vindi, sem fis þad er stormurinn
burtfeikir? 19. Gud geimir börnunum födurs-
ins rángindi, honum skyldi hann endurgjalda
sjálfum, ad hann finndi til þess. 20. Hans
augu skyldu sjá hans eigin fordjörfun! og hann
skyldi drekka sjálfur af reidi hins Almáttuga.
21. Því hvad géfur hann um sitt hús eptir
sinn dauda, þegar tala hans mánada er full-
komnud. 22. Hvör getur kénnt Gudi vís-
dóm? honum, sem dæmir þá hædstu. 23.
Þessi deyr í sinni mestu velgeingni, rólegur og
óhultur. 24. Hans ílát eru full af mjólk,
og í hans beinum er nýr mergur. 25. En
annar deyr í sálar ángist og hefir ekki smakkad
hid góda. 26. Þeir liggja hvör hjá ödrum
í duptinu, og madkarnir hylja þá. 27. Sjá!
eg þekki ydar hugsanir, og hvad þér útstundid
til ad gjöra mér órétt.

28. Þér munud segja: hvar er hús hins
volduga? og hvar er tjaldbúd hinna ógudlegu?
29. Hafid þér ekki spurt ferdamennina? þér verd-
id ad þekkja þeirra mark. 30. Sá vondi geymist
til ólukkunnar dags; á hefndarinnar degi verd-
ur hann fluttur til jardarinnar. 31. Hvör set-
ur honum fyrir sjónir hans breitni? og hvör
betalar honum fyrir þad sem hann hefir gjört.
32. Hann verdur fluttur til grafarinnar, og
hans minníng vardveitist vid leidid. 33.
Dalsins mold hvílir hægt yfir honum, og hvör
madur fer eptir honum, og óteljandi eru á
undan farnir. 34. Hví huggid þér mig þá
med fánýtri von? ydar svör eru vondska.

## 22. Kapítuli.

Elífas svarar.

1. Þá svaradi Elífas af Teman og sagdi:
2. getur madurinn ordid Gudi ad gagni? nei!
sá hyggni getur gagnast sjálfum sér. 3. Er
þad nokkud hagrædi fyrir hinn Almáttuga ad
þú ert réttlátur? er þad ábati fyrir hann ad
þú vandar þitt framferdi? 4. Mun hann af
hrædslu fyrir þér gánga í rétt vid þig? og
koma med þér fyrir dóminn? 5. Er ekki þín
vondska mikil? og einginn endi á þínum mis-
gjördum? 6. Þú hefir tekid pant af þínum
brædrum án orsaka; og afklædt hina nöktu.
7. Þú svaladir ekki med vatni þeim þreytta;
og þú synjadir hinum húngrada um braud.
8. Fyrir þeim volduga manni stód landid op-
id; og sá göfugi bjó í því. 9. Ekkjur létstu
fara tómhendtar, og stodir hinna födurlausu sund-
ur-mördust; 10. því ertu umvafinn af snörum,
og skélfíngin hefir snögglega hrædt þig, 11. og
myrkrid, svo þú getur ekki sjed, og vatns megn-
id hylur þig. 12. Er ekki Gud í þeim háa
himni? líttu upp til þeirra efstu stjarna, hvörsu
(hátt) eru þær? 13. Hví segir þú: hvad veit
Gud? mun hann geta dæmt í myrkrinu?
14. Skýin skyggja á hann, svo ad hann sjer
ekki, og hann geingur í himinsins hríng. 15.
Þú ferd þá gömlu leid sem þeir ránglátu hafa
farid, 16. sem eldtust fyrir tímann, (vatnsfall
burtskoladi þeirra grundvelli) sem sögdu vid
Gud: 17. vík frá oss! og hvad hafdi sá Al-
máttugi gjört þeim? 18. Hann hafdi þó

fyllt þeirra hús med gjædum! fjærlæg séu mér rád hinna ógudlegu! 19. Þeir réttlátu sjá þad straff hinna vondu og gledjast, og hinir saklausu hælast um vid þá og segja: 20. eru ekki vorir mótstødumenn afmádir? og eldurinn eydilagdi þeirra dýrd! 21. Kjæri! haldtu þig til hans (Guds), svo muntu hafa frid, þaraf mun mikid gott til þín streyma! 22. Kjæri! medtaktu lærdóminn af hans munni, og legg þú hans tal uppá hjartad. 23. Ef þú snýr þér til hins Almáttuga, þá verdur þú aptur á fætur reistur, láttu ránglæti vera lángt frá þínum tjaldbúdum. 24. Kastadu málminum í duptid, og Ofirs gulli í dalsins urd, 25. svo mun sá Almáttugi vera þitt gull, vera þér hid kostulegasta silfur. 26. Því þá skaltu hafa yndi af þeim Almáttuga, og upplypta þínu augliti til Guds. 27. Þú munt bidja hann og hann mun heyra þig, og þú skalt greida þín heit. 28. Hvad sem þú áformar mun þér lukkast, og á þinn veg mun ljósid skína. 29. Þegar menn beigja þig nidur skaltu segja: upphefd! og hann (Gud) mun frelsa þann sem er audmjúkur, (lítur nidur augunum). 30. Já! hann mun frelsa jafnvel þann sem ekki er saklaus, hann skal frelsast fyrir sakir þinna hreinu handa. (Af því þú bidur fyrir honnm).

## 23. Kapituli.

Job afhendir Drottni sitt málefni.

1. Þá svaradi Job og sagdi: 2. sár verdur enn mín umkvørtun; mín hønd gjørir mitt andvarp þúngt. 3. Ó! ad eg vissi ad finna hann og gjæti komid fram fyrir hans hásæti. 4. Eg skyldi reglulega framleggja í rétt fyrir hann mína søk, og fylla minn munn med afsøkunum (ástædum). 5. Eg gjæti vitad med hvørjum ordum hann mundi svara mér; og reynt hvad hann vildi segja mér. 6. Ætla hann mundi þreyta vid mig med sínum mikla krapti? nei! hann mundi ad eins sýna mér athygli. 7. Þá mundi einn hreinskilinn gánga í rétt vid hann; og eg mundi ad eilífu fríkénnast af mínum dómara. 8. En sjá! gángi eg áfram svo er hann ekki þar, eda til baka, verd eg ekki var vid hann. 9. Þó hann gjøri eitthvad á vinstri hlid, sje eg hann ekki, feli hann sig hægrameigin, finn eg hann ekki. 10. En hann þekkir þann veg sem eg geing; hann reynir mig, og eg prófast sem gullid. 11. Minn fótur fylgdi fastlega hans sporum; hans veg fór eg, og beigdi ekki af leid. 12. Bodord hans vara hefi eg ekki yfirgéfid; betur geimdi eg talid hans munns, heldur enn mín eigin áform. 13. En hann er vid þad sama (óumbreitanlegur), hvør gétur komid honum af því? Hann gjørir þad sem hans sál girnist. 14. Hann fullgjørir þad sem mér er ætlad; og margt þessháttar hefir hann í huga. 15. Því skélfist eg fyrir hans augliti; eg virdi þad fyrir mér, og hrædist hann. 16. Því Gud hefir tekid kjarkinn úr mínu hjarta; og sá Almáttugi hefir skélkad mig. 17. Af því eg þagnadi (dó) ekki ádurenn myrkrid kom, og hann tók ekki dimmuna frá minni augsýn.

## 24. Kapituli.

Job talar um athæfi ógudlegra.

1. Hvar fyrir munu tímarnir ei huldir vera þeim almáttuga, og hvar fyrir sjá ekki þeir hans daga sem þekkja hann? 2. Landamerkin flytja menn; hjørdunum ræna menn og halda á beit. 3. Þeir reka burt asna hinna fødurlausu, og taka uxa ekkjunnar í pant. 4. Þeim fátæku er hrundid af gøtu; og þeir aumu í landinu verda allir ad fela sig. 5. Sjá! eins og villi-asnar í øræfunum gánga þeir aumu út til sinna starfa; þeir fara snemma á fætur til ad fá sér fódur, eydimørkin géfur þeim braud, handa þeirra børnum. 6. Á akrinum

uppskéra þeir sitt fódur, og safna þeirri seinni uppskéru í víngardi hins ógudlega. 7. Naktir liggja þeir á nóttum, fatalausir, án ábreidu, í kuldanum. 8. Þeir verda votir af fjallhrídum; og fadma klettinn af því þá vantar hæli. 9. Þeir rífa þann fødurlausa af brjóstinu, og føt hins snauda taka þeir í pant. 10. Þeir láta þá nøktu fara klædlausa, og hinir húngrudu bera kornbindini. 11. Innan þeirra veggja pressa þeir olíu, þeir troda þrúguna og eru þyrstir. 12. Stadarmennirnir andvarpa deyandi; og sálir hinna drepnu hljóda, þó gjørir Gud ekkért undur! 13. Nokkrir eru medal þeirra sem hata ljósid; þeir þekkja ekki hans vegu og þeir eru ekki á hans gøtu. 14. Þegra dagar, fer mordínginn á fætur og drepur þann fátæka og þurfamanninn, og á nóttunni er hann sem þjófur. 15. Og hórkarlsins auga bídur eptir røkkrinu, og hann segir: mig skal ekkért auga sjá! og hann hefir skýlu fyrir andlitinu. 16. Í mirkrinu brjótast þeir inní húsin; á daginn loka þeir sig inni; þeir fordast ljósid. 17. Morguninn er þeim sem daudans skuggi; því þeir eru handgeingnir mirkursins skélfíngum. 18. Óstødugir einsog hafsins froda (bølvud er þeirra hlutdeild í landinu)! snúa þeir sér ekki ad vegum víngardanna. 19. Þurkur og hiti uppsvelgir snjóvatnid, en grøfin þá, sem hafa syndgad. 20. Þesshúttar madur mun gleymast sínum nánustu; ormunum mun hann vel smakkast, menn skulu ekki framar til hans muna; ránglætid mun brotna sem feiskid tré. 21. Sá sem undirþrykkti þá barnlausu, er ekki fæddi, sem ekki gjørdi ekkjunni gott; 22. sem nidurdróg þann volduga med sinni makt; ef hann stód upp var líf manna ekki óhult. 23. Gèfi Gud þeim ad lifa óhultum, reida þeir sig á þad; þó tekur hans auga eptir þeirra vegum. 24. Þeir eru í hávegum um stund, og þeir eru ei framar til; þeir nidurþrykkjast, og innilokast, einsog allir í grøfinni; og eins og fullvaxid ax, verda þeir afsnidnir. 25. Er þad ekki svo? Hvør straffar mig fyrir ósannsøgli og gjørir mitt tal ad eingu?

## 25. Kapituli.

Bildad svarar.

1. En Bildad af Súa svaradi og sagdi: 2. herradæmi og ótti er hjá honum, sem býdur frid frá hædum! 3. Mun hans her verda talinn? yfir hvørjum upprennur ekki hans ljós? 4. Hvørnig gétur madurinn verid réttlátur fyrir Gudi? og hvørnig sá hreinn sem er fæddur af kvinnu? 5. Líttu upp til túnglsins, jafnvel ei þar setur hann sína tjaldbúd; og stjørnurnar eru ekki hreinar fyrir hans augum. 6. Hvørsu miklu sídur madurinn, sá ormur, og mannsins barn, sá madkur.

## 26. Kapítuli.

Job talar um Guds hátign.

1. Þá svaradi Job og sagdi: 2. hvørnig hefir þú hjálpad þeim máttlausa? styrktir þú þann arm sem hafdi eingann krapt? 3. Hvada rád gafstu þeim fávísa? útbýttir þú speki ríkuglega. 4. Hvørjum hefir þú kunngjørt þitt tal? og af hvørjum anda taladir þú? 5. Andarnir í undirheimum skélfast, sjórinn og hans innbúar. 6. Undirheimar eru honum øndverdir (opnir), og afgrunnid hefir eingin fylsni. 7. Hann útbreidir nordrid yfir øræfin; hann heingir jørdina á ekki neitt. 8. Hann bindur saman vatnid í sínum skýum, þó bresta ei regnskýin undir því. 9. Hann birgir sitt hásæti og breidir skýin yfir þad. 10. Hann sirkladi vandlega takmørk á vatninu, ljósid hjá mirkrinu. 11. Himinsins stólpar nøtra og hræd ast hans hótan. 12. Med sínum krapti nppæsir hann hafid, og med sínum vísdómi brýtur hann á bak aptur sjáfarins dramb. 13.

Af hans anda er himininn fagur; hans hönd hefir mindad höggorminn í nordrinu (himinmerki). 14. Sjá! þetta er ytstu partar af hans vegum, og hvörsu lítid er þad tal, sem vér höfum um hann heyrt! En þrumu hins almáttuga — hvör skilur hana?

## 27. Kapítuli.

Job vill ei vera hræsnari.

1. Og Job hélt áfram ad tala og sagdi: 2. vid þann lifandi Gud sem hefir burttekid minn rétt, og vid þann almáttuga sem hefir hryggt mína sál: 3. Svo leingi sem eg dreg andann, og Guds andi hrærir sig í mínum nösum, 4. skulu mínar varir ekki tala rángindi og mín túnga ekki svikrædi mæla! 5. þad sé lángt frá mér, ad eg játi þér hafid rétt ad mæla; þángad til eg uppgéf andann, skal eg ekki láta taka frá mér mitt sakleysi. 6. Eg vil halda fast vid mitt réttlæti og því ekki sleppa, mitt hjarta skal ekki skammast sín fyrir mína daga. 7. Minn óvinur skal verda sem sá ógudlegi; og sá sem setur sig upp á móti mér, sem sá rángláti. 8. Því hvör er von hræsnarans, hvad mikid sem hann grædir, þegar Gud burtrikkir hans sálu? 9. Ætla Gud heyri hans hljód þegar ángistin kémur yfir hann? 10. Gétur hann haft fögnud af þeim almáttuga? gétur hann ætíd ákallad Gud? 11. Eg vil uppfræda ydur um hönd (verk) Guds, eg vil ei dylja þad sem þeim almáttuga er í hug. 12. Sjá! þér allir hafid sjed þad, því talid þér þá svo hégómlega? 13. Þetta er hlutfall hins ógudlega hjá Gudi og tírannanna erfd, sem þeir skulu fá af hendi hins almáttuga. 14. Þó hann hafi mörg börn, skulu þau falla fyrir sverdi, og hans nidjar skulu ei hafa nóga fædslu? 15 Þeir, sem hann eptirskilur, skulu deya enn ekki jardast, og þeirra ekkjur munu ekki gráta. 16. Þegar hann safnar silfri sem ríki, og dregur ad sér klædi sem leir, 17. þá dregur hann vel ad, en sá rétt-láti færir sig í þau, og silfrid skal verda hlutdeild hins saklausa. 18. Hann byggdi sér hús eins og mölurinn, líkt kofa sem vaktarinn gjörir sér; 19. sá ríki leggur sig, og verdur ekki grafinn, hann lýkur upp augunum, svo er hann ekki meir. 20. Skélfíngar munu grípa hann eins og vatnsflód; hvirfilvindur mun um nóttina burtsvifta honum. 21. Austanvindurinn mun uppkippa honum, svoad hann ferst, og med hrada rekst hann frá sínum stad. 22. Gud mun ad honum rádast og ekki vægja honum, hann mun reyna ad sleppa undan hans hendi. 23. Menn munu klappa saman höndum yfir honum, og blýstra hann burt frá sínum stad.

## 28. Kapítuli.

Um Guds speki.

1. Ad sönnu hefir silfrid sinn uppruna og gullid, sem madur hreinsar, hefir sinn stad. 2. Járnid er tekid úr jördu, og steinar brædast í eir. 3. Hann (madurinn) gjörir enda á myrkrinu, og hann ransakar allt nákvæmlega, já jafnvel steinana, hvar dymman og daudans skuggar eru. 4. Lækur sprettur upp þar sem þeir búa, þeir missa fótanna, og án mannhjálpar berast þeir til og frá. 5. Jördin, hvar af braudid sprettur, raskast ad innan sem af eldi. 6. Safírsins stadur er í hennar steinum, og í henni eru gullnámur. 7. Veginn þángad þekkir eingin fugl, einkis gamms auga hefir hann sjed. 8. Villudýrin geingu ei þá leid, og ekkért ljón fór hana. 9. Á klettana leggur hann sína hönd; hann umturnar fjöllunum frá rótum; 10. hann sundurgrefur klettana og allt dýrmætt sjer þá hans auga. 11. Rensli vatnanna stíflar hann, og framleidir þad hulda fyrir ljósid. 12. En vísdóm, hvar finnur madur hann? og hvar er geymslustadur hygginndanna? 13. Madurinn þekkir ekki (hans) verd, og hann finst ekki í

landi þeirra sem lifa. 14. Afgrunnid segir: í mér (er hann) ekki, og hafid segir: hjá mér er hann ekki. 15. Madur gétur ekki géfid gull fyrir hann, ekki heldur útvegid silfur til ad betala hann med. 16. Hann verdur ei betaladur med Ofírs gulli, ei med þeim díra Onyx og Safír. 17. Gull og kristallur géta ei metist jafnt honum, menn géta ei feingid hann fyrir gullkér. 18. Kórhalla og edalsteina er ekki hér ad nefna, því vísdómurinn er dírmætari enn perlur. 19. Blálands Smaragdar géta ei vid hann jafnast, þad skírasta gull vegur ekki vid hann. 20. Hvadan skal þá vísdómurinn koma? og hvar er hygginndanna geimslu búr? 21. Hann er fólginn augum allra þeirra sem lifa, hann er hulinn himinsins fuglum. 22. Afgrunnid og daudinn segja: med vorum eyrum høfum vér heyrt hans rikti. 23. Gud þekkir hans vegu, hann veit af hans bústad, 24. því hann sjer til jardarinnar enda; hvad sem er undir øllum himninum, þad sjer hann. 25. Þá hann gaf vedrinu sína þýngd, og tiltók vatnsins mælir. 26. Þá hann gaf regninu sín løg, og eldíngunni, sem fer undan þrumunni sína leid, 27. þá sá hann hann og kunngjørdi hann; hann afmældi hann, og ransakadi hann líka. 28. Og hann sagdi vid manninn: sjá! Drottins ótti er vísdómur og ad víkja frá hinu illa, þad eru hyggindi.

## 29. Kapítuli.

Job talar um sína lidnu æfi.

1. Job hélt áfram ad tala og sagdi: 2. ó! ad eg væri sem á þeim lidnu mánudum, eins og á þeim døgum, þá Gud vardveitti mig, 3. þegar hans ljós skein yfir mínu høfdi, þá eg gékk vid hans ljós í myrkrinu. 4. Eins og þá eg var á døgum míns kraptar, þegar Guds vinskapur var yfir minni tjaldbúd; 5. þegar sá almáttugi enn nú var med mér; þegar mínir þénarar umkríngdu mig. 6. Þegar eg þvodi mínar fætur í mjólk, og kletturinn, vid mína hlid, úthellti olíu. 7. Geingi eg gégnum stadinn útaf portunum, eda léti eg búa mér sæti á torginu, 8. þá føldu únglíngarnir sig sem sáu mig; og øldúngarnir risu upp og stódu. 9. Høfdíngjarnir hættu ad tala og løgdu hønd sér á munn. 10. Furstanna raust faldi sig og þeirra túnga hékk fast vid þeirra góm. 11. Þad eyra sem heyrdi mig prísadi mig sælann, og þad auga sem sá mig, gaf mér (heidurlegan) vitnisburd. 12. Því eg hjálpadi þeim fátæka sem kveinadi og þeim fødurlausa sem eingann adstodarmann hafdi. 13. Blessan hins fødurlausa kom yfir mig, og ekkjunnar hjarta fyllti eg med føgnudi. 14. Eg íklæddi mig réttlætinu, þad var minn fatnadur, rétturinn var mín kápa og høfudprýdi. 15. Eg var auga þess blinda og fótur hins halta. 16. Eg var fadir hinna fátæku og málefni hins ókénda ransakadi eg. 17. Kjálkatønnur hins rángláta braut eg, og reif brádina úr hans gini. 18. Þá sagdi eg: í mínu hreidri vil eg uppgéfa andann, og mína daga vil eg margfalda sem sand. 19. Mín rót sýgur í sig vatnid, og døggin fellur á nóttunni yfir mínar greinar. 20. Minn heidur er alltíd nýr, og minn bogi fær nýjann krapt í minni hendi. 21. Þeir hlýddu á mig og bidu, og þeir þøgdu vid mínar tilløgur. 22. Uppá mín ord svørudu þeir ekki, því yfir þá úthellti eg mínu tali. 23. Þeir bidu mín einsog regns, og opnudu sinn munn einsog eptir þeim seinustu dropum. 24. Eg brosti uppá þá þegar þeir voru huglausir; og gladleiki míns andlitis hrygdi þá ekki. 25. Væri eg í félagi med þeim, vard eg ad sitja efst, og eg var þar einsog Kóngur medal hans strídsmanna, sem huggari medal þeirra sem syrgja.

## 30. Kapítuli.

Sama efni.

1. En, nú hlæa þeir ad mér, sem eru ýngri

enn eg, hvørra fedur, eg áleit ekki verduga til ad setja þá yfir mína fjárhunda. 2. Já! hvartil mundi kraptur þeirra handa gagna mér? hann var af elli hjá þeim farinn. 3. Ormagna af húngri og skorti flýa þeir á þurra stadi til þeirrar dimmu og óbygdu eydimerkur. 4. Þeir uppkippa a) mølvu hjá runnunum, og einirberja vidarins rætur eru þeirra fæda. 5. Þeir eru útflæmdir úr manna sambúd, menn hrópa eptir þeim einsog eptir þjóf. 6. Þeir búa í giljum í dølunum, í hellrum jardar og klettaskorum. 7. Midt í runnunum rymja þeir, medal þistlanna samansafnast þeir. 8. Gudlausra, já ærulausra synir eru þeir, útreknir úr landinu 9. og þessara hádvísa er eg ordinn, eg em ordinn þeirra umtalsefni. 10. Þá stuggar vid mér, þeir koma ekki nærri mér; þeir hika ekki vid ad hrækja á mig. 11. Þeir hafa kastad taumnum, og audmýkja mig; þeir hafa slept beitslinu, þó eg horfi á þá. 12. Mér til hægri handar vex upp þad únga hyski. Þad hrindir mínum fótum áfram og leggur fordjørfunarinnar braut ad mér. 13. Þeir upprífa mína stétt; þeir stydja ad minni biltu. Einginn adstodar mig. 14. Þeir brjótast inn ad mér eins og gégnum vídt skard, med eydilegging veltast þeir áfram. 15. Skélfíngar snúast móti mér; þær ásækja minn verdugleika sem stormvidri, eins og ský er mín gjæfa horfin. 16. Því úthellist nú mín sál í tárum. Eymdanna dagar hitta mig. 17. Nóttin gagnborar mín bein, og þeir sem plága mig, hvílast ekki. 18. Sjúkdómurinn er, vegna síns ákafa, ordinn minn b) klædnadur, hann umgirdir mig sem hálsmál míns kyrtils.

19. Hann hefir kastad mér nidur í saurinn, og eg líkist dufti og øsku. 20. Eg kalla til þín, en þú svarar ekki; eg stend frammi fyrir þér, en þú géfur mér eingann gaum. 21. Þú ert ordinn grimmur vid mig, med styrk þinnar handar ásækir þú mig. 22. Þú lyptir mér upp, rikkir mér burt med stormi, og brædir allann minn krapt; 23. því eg veit þú leidir mig til daudans, til samkomustadar allra þeirra sem lifa. 24. Ætla bænin órki eingu, þá hann útréttir sína hønd? ætla þad sé til einkis ad kalla til hans, þá hann fordjarfar? 25. Grét eg ekki med þeim sem urdu á hørdu ad kénna? aumkadi mín sál ekki fátæklínginn? 26. Og samt, þegar eg bjóst vid gódu, kom hid illa, og þegar eg vænti ljóssins, þá kom myrkrid. 27. Mín innifli sjóda án afláts. Eymdanna dagar hafa komid yfir mig sviplega. 28. Svartur geing eg um kríng, þó ekki af sólinni. Standandi á samkomunni verd eg ad kvarta og kveina. 29. Eg em ordinn høggorma bródir og strútsfuglanna félagi (sem helst lifa afsídis). 30. Mín gjørvøll húd er ordin svørt, og mín bein eydast af hita. 31. Mín harpa er ordin harmakløgun og mitt hljódfæri hrygdar tón.

## 31. Kapítuli.

*Job talar um sína gudrækni.*

1. Eg gjørdi sáttmála vid mín augu; því skyldi eg líta til meyanna? 2. Hvílíku hlutfalli útbýtti Gud mér þá ofanad? og hvørn arf sá Almáttugi frá hædinni? 3. Er ekki ógjæfan reidubúin þeim ógudlega? og hegníng þeim sem ydkar ránglæti? 4. Ætla hann sjái ekki mína vegu og telji øll mín spor? 5. Hafi eg farid med hégóma (lýgi), og hafi minn fótur hradad sér til svika, 6. þá vegi hann mig í réttvísinnar meta skál, og Gud kannist vid mitt sakleysi! 7. hafi mín spor beigt af leid, hafi mitt hjarta fylgt lyst minna augna, og hafi nokkud lodad vid mínar hendur; 8. þá eti einn annar þad sem eg sádi, og mitt afkvæmi rikkist upp med rótum. 9. Hafi mitt

V. 4. *a.* Jurt eda jurtarrót. V. 18. *b.* Holdsveiki hefir gjørt allann minn líkama ad flatsæri.

hjarta lokkast af nokkurri kvinnu, eda hafi eg
falist vid dyr míns náúnga, 10. þá þéni mín
kona ødrum, og adrir leggist med henni. 11.
Því þad væri skømm, og illvirki sem ynni til
straffs af dómurunum; 12. já, eldur sem tærdi
og fordjarfadi, og sem upprikkti med rótum
øllum mínum gródri. 13. Efad eg hefdi for=
aktad rétt míns þénara og þjónustukvinnu, þeg=
ar þau høfdu mál vid mig, 14. hvad mundi eg
þá gjøra þegar Gud tæki sig upp? og þegar
hann vildi vitja mín, hvørju mundi eg þá
svara? 15. Hefir ei sá sem skapadi mig í
módur lífi, líka skapad hann? og einn og hinn
sami myndad oss í barnsleginu? 16. Hefi
eg synjad þeim snauda um þad sem hann
beiddist eptir, og látid ekkjunni bregdast hennar
von; 17. og hefi eg etid einn minn mat, svo
sá fødur=lausi ekki át þar af; 18. (þad er
ødru nær, hann hefir fra barnæsku uppalist hjá
mér sem hjá fødur; og frá módurlífi ól eg ønn
fyrir ekkjunni); 19. hafi eg sjed nokkurn deya
af klædleysi, og þann fátæka af nekt; 20.
hafi hans lendar ekki blessad mig, þegar honum
hitnadi af minni saudarull; 21. hafi eg út=
rétt mína hønd móti þeim fødurlausa, þegar
eg sá ad mér veitti betur í málinu; 22. sé
svo, þá detti mín herdablød frá mínum herd=
um, og minn armur verdi sundurbrotinn frá
sperrulleggnum. 23. Því sú fordjørfun sem
kémur frá Gudi, væri mér skélfíng, og gégn
hans hátign megnadi eg ekkért.

24. Hefi eg sett mína von til gullsins, eda
sagt vid þann díra málm: þú ert mitt athvarf;
25. hafi eg gladst af því ad minn audur var
mikill, og ad mín hønd hafdi útvegad sér nægt=
ir; 26. leit eg upp til himinsins ljóss, þegar þad
skein, eda til túnglsins, þá þad gékk dýrdlega
fram, 27. og lét mitt hjarta sig lokka í kirrþey
ad kasta til þess kossi; 28. líka þetta hefdi
verid straffverd synd; því þar med hefdi
eg afneitad Gudi á hædum. 29. Hefi eg
gladst af slisum míns óvinar, og fagnad þegar
ólukkan hitti hann;

30. Nei! eg leyfdi ei minni túngu svo ad
syndga ad eg óskadi bølvunar hans sálu. 31.
Søgdu ekki mennirnir í mínu tjaldi: hvar finn=
ur madur nokkurn sem ei hafi mettast af hans
kjøti? (feingid hjá honum mat). 32. Sá
framandi mátti ei liggja á gøtunni um nótt=
ina; mínar dyr opnadi eg fyrir ferdamanninum.
33. Faldi eg einsog menn fela, mínar yfirtrodsl=
ur og huldi eg minn misgjørníng í mínu brjósti?
34. Þá skélki mig sá stóri hópur, og ættanna
fyrirlitníng komi inn hjá mér hrædslu, svo eg
verdi ad þegja og vogi mér ekki út af dyrunum!

35. Ó! ad einhvør vildi heyra mig! sjá hér
mitt varnarrit; sá almáttugi svari mér! og sá
sem þráttar vid mig, skrifi kløgunina! 36.
Hvad gildir þad? Eg skyldi taka þad uppá
mínar axlir, binda þad um mig sem høfud=
prýdi. 37. Eg skyldi segja honum frá hvør=
ju mínu spori, og gánga framm fyrir hann
sem høfdíngi. 38. Efad mitt land hrópar á
móti mér, og þess akurreinar kvarta líka, 39.
hafi eg etid þess gróda kauplaust, og pressad
andvørp af eigendum þess; 40. þá spretti mér
þyrnar í stad hveitis og illgresi fyrir bygg.
(Hér endar Jobs tala).

## 32. Kapítuli.

Ræda Elíhús.

1. Þá hættu þeir þrír menn ad svara Job,
því hann þóttist vera réttlátur. 2. En Elíhú
Barakeelsson af Bús, af Ramas ætt, upp=
tendradist af reidi; gégn Job æstist hans reidi,
af því hann hélt sína sálu réttláta í Guds
augsýn; 3. og gégn hans þremur vinum upp=
tendradist hans reidi, af því þeir fundu ekkért
svar, og dæmdu þó ad Job væri ógudlegur.
4. En Elíhú hafdi bedid þess ad Job hætti ad

tala, því þeir vóru eldri enn hann; 5. þegar Elíhú sá nú að þar var ekkért svar í þeirra þriggja manna munni, þá upptendraðist hans reiði. 6. Þar fyrir svaraði Elíhú Barakeelsson af Bús, og sagði: eg em úngur að aldri, en þér eruð øldúngar, þarfyrir hræddist eg og óttaðist að kunngjøra yður mína meiníngu. 7. Eg hugsaði: dagarnir skulu tala, og áranna fjøldi kunngjøra vísdóm. 8. Vissulega er andi í mønnunum, en andi hins almáttuga gjørir þá hyggna. 9. Þeir voldugu eru ei ætíð hyggnir, ei heldur skynja þeir gømlu ætíð hvað rétt er. 10. Þar fyrir segi eg: heyrið mig! eg vil líka segja mína meiníngu. 11. Sjá! eg beið eptir yðar orðum, eg hlustaði á yðar røksemdir, þángað til þér hefðuð ransakað málefnið. 12. Yður gaf eg gaum. En sjá! þar er einginn sem sannfæri Job, einginn af yður sem reki hans tal til baka. 13. Segið þó ekki: „vér høfum fundið vísdóminn. Guð verður að fella hann, manni er það ei unnt". 14. Ekki hefir hann stílað sitt tal á móti mér, og með yðar orðum vil eg ei svara honum. 15. Þeir eru skélkaðir og svara ei framar; þeir eru sviptir málinu. 16. Og skyldi eg bíðleika; þegar þeir tala ekki, stansa og svara ekki framar? 17. Eg vil svara fyrir minn part, líka vil eg segja mína meiníngu, 18. því eg er fullur af tali; andinn í mínu brjósti þvíngar mig. 19. Sjá! mitt brjóst er sem vín, er ekki fær útrás, sem nýir skinnbelgir er hljóta að rifna. 20. Eg verð að tala svo eg nái andanum. Eg verð að opna mínar varir og svara: 21. kjæri! eg fer ekki í manugreinar álit; fyrir eingum manni smjaðra eg. 22. Eg kann ekki að smjaðra, annars skyldi sá sem mig skóp, skyndilega taka mig burt.

## 33. Kapítuli.

Um Guðs réttlæti.

1. En þú Job! heyr þú mitt tal! og snú þínum eyrum til minna orða! 2. sjá, kjæri! eg opna minn munn, mín túnga talar í mínum munni. 3. Mínar ræður skulu framsegja hvað mitt hjarta skynjar rétt, og mínar varir skulu tala hreinann sannleika. 4. Guðs Andi hefir skapað mig, og Andi hins Almáttuga lífgað mig. 5. Svaraðu mér ef þú getur, hertýgjaztu móti mér, og kom þú! 6. Sjá! eg em sem þú af Guði. Líka er eg myndaður af leir. 7. Þú þarft ekki að hræðast mig. Mín hønd skal ekki vera þúng á þér.

8. Vissulega sagðir þú, svo eg heyrði; já eg heyrði raustina þvílíks tals: 9. „eg em hreinn, án yfirtroðslu? eg em saklaus, og á mér hvílir eingin misgjørð. 10. Sjá! hann hefir fundið mér søk, hann álítur mig sinn óvin. 11. Hann hefir sett mína fætur í stokk, hann gefur gaum að øllum mínum stigum." 12. Sjá! þú hefir ekki rétt fyrir þér; eg skal reka þig til baka, því Guð er meiri enn maðurinn. 13. Því geingur þú í rétt við hann, þó hann gjøri þér eingin skil fyrir nokkru af sínum verkum? 14. Því einusinni talar Guð og tvisvar, maðurinn gefur því ei gaum; 15. í draumum, í sýnum á nóttum, þegar djúpur svefn fellur yfir mennina, þegar þeir blunda í sinni sæng, 16. þá opnar hann mannanna eyru, og innprentar þeim uppfræðíngu, 17. til að draga menn frá ódáðum, og varðveita manninn frá drambsemi, 18. til að hlífa hans sál við fordjørfun og hans lífi, að það ekki tortýnist fyrir sverði. 19. Hann straffast og með verkjum á sinni sæng og með støðugu stríði í sínum beinum, 20. svo hann fær óbeit á brauði, og hans sál vill ei ljúffeingann mat. 21. Hans hold tærist, svo það sjest ekki, og hans bein, sem ekki sáust (áður), skaga út. 22. Hans sál færist nær grøfinni, og hans líf, ríki hinna dauðu. 23. Sé þá hjá honum Eingill, talsmaður, einn af þeim þúsund mørgu,

til ad segja manninum hans skyldu, 24. þá miskunar Gud sig yfir hann, og segir: a) frelsa hann frá ad nidurstíga í grøfina, eg hefi feingid forlíkunarfórn. 25. Þá mun hans líkami blómgast meir enn æskumannsins, hann mun hverfa til baka til sinna úngdóms daga. 26. Hann mun bidja Gud, og Gud mun hafa velþókknun á honum, svo ad hann mun skoda hans anglit med føgnudi, og hann mun géfa manninum aptur hans réttlæti. 27. Hann mun fagna medal manna og segja: „eg hefi syndgad, og adhafst rángindi, en þad er mér ekki endurgoldid. 28. Hann hefir frelsad mína sálu frá því ad nidurstíga í grøfina, og mitt líf gledur sig vid ljósid". 29. Sjá! allt þetta gjørir Gud tvísvar, þrisvar vid manninn, 30. til ad leida hans sál til baka frá grøfinni, til þess á hann skíni lífsins ljós.

31. Taktu eptir þessu, Job! heyr þú mig! þeigi þú! eg vil tala! 32. En hafir þú nokkud ad segja, þá svaradu mér! taladu! því eg vildi þú hefdir á réttu ad standa. 33. Ef ekki, þá hlýd þú á, og þeigi þú! og eg skal kénna þér vísdóm.

## 34. Kapítuli.

Sama tala.

1. Framvegis tók Elíhú til orda, og mælti: 2. heyrid, þér vísu, mitt tal, og þér hyggnu! 3. leggid vid eyrun, því eyrad prófar talid, eins og gómurinn smakkar til ad eta (fæduna), 4. látum oss ransaka réttinn, látum oss koma oss saman um hvad gott er. 5. Job hefir sagt: „eg er réttlátur, og Gud hefir rænt mig mínum rétti, 6. eg straffast sem lygari þó eg hafi rétt, eg særist af drepandi skeitum, þó eingin yfirtrodsla sé hjá mér". 7. Hvør madur er líkur Job, sem drekkur í sig gudlastid eins og vatn? 8. Og geingur í félag med þeim sem gjøra rángt, og fer med þeim ógudlegu? 9. Því hann sagdi: „þad stodar ékkért manninn, þó hann lángi til ad gánga med Gudi". 10. Heyrid mig því þér menn med viti! lángt frá Gudi sé ránglæti, og frá þeim Almáttuga ósannsýni! 11. Hann endurgéldur manninum eptir hans verkum, og lætur sérhvørn finna, eptir sinni breytni. 12. Já, vissulega breytir Gud ekki ránglátlega, og sá almáttugi rángfærir (hártogar) ekki réttinn. 13. Hvør hefir sett hann yfir jørdina, og hvør hefir myndad allan heiminn? 14. Efad hann vildi annast sig einann, og draga sinn anda og sinn andardrátt til sín, 15. þá hlyti allt hold ad uppgéfa andann, og madurinn yrdi aptur ad dufti. 16. Hafir þú vit, þá taktu eptir þessu! snú þínu eyra ad raust minnar ordrædu! 17. gétur sá sem hatar réttinn stýrt sinni reidi? viltu dæma þann sem er réttlátur og voldugur? 18. Þorir nokkur ad segja vid Kónginn: þú afhrak! eda vid høfdíngjann: þú gudleysíngur! 19. Enn sídur vid þann sem ekki gjørir sér manna mun, þó furstar eigi í hlut, og metur ei meir þann ríka enn þann snauda. Því allir eru þeir hans handaverk. 20. Á augnabliki deya þeir; midt á nóttinni skélkast þjódirnar og tortínast og þeir voldugu burthrífast án manna handa. 21. Því hans augu eru yfir mannanna vegum, og øll þeirra spor sjer hann. 22. Þar er eingin dimma, og einginn daudans skuggi, hvarí þeir sem rángt adhafast, géti falid sig fyrir honum. 23. Hann þarf ekki ad gá leingi ad þeim, sem vill gánga í rétt vid Gud. 24. Hann sundurslær þá voldugu án ransóknar, og setur adra í þeirra stad; 25. því hann þekkir þeirra verk; hann fleigir þeim um koll á nóttunni, og þeir verda

V. 24. *a.* Nl: vid Eingilinn sem hjá manninum stendur. V. 27. Adhafst rángindi: eptir ordinu: gjørt hlikkjótt þad beina.

sundurmardir. 26. Af því þeir eru ógud-
legir, slær hann þá á bersýnilegum stad. 27.
af því þeir hættu ad fylgja honum, og hyrdtu
ei um neitt af hans vegum, 28. Þannig
lætur hann hróp hinna snaudu, þeim í koll
koma, því hann heyrir kall hinna voludu. 29.
(Þegar hann gjörir kird, hvør þorir þá ad
æsa óróa? þegar hann felur sitt auglit, hvør
gétur þá sjed hann, hvørt sem þad væri fyrir
heilli þjód eda ad eins einum manni)? 30.
Til þess ad hræsnarinn ekki skuli drottna, og
ekki vera snara fyrir fólkid.

31. Má madur segja vid Gud: „eg straff-
ast, og hefi ekki syndgad"; 32. hafi mér óvil-
jandi yfirsjest, þá kénn þú mér. Hafi eg gjørt
rángt, þá vil eg ekki gjøra þad aptur. 33. Á
Gud ad endurgjalda eins og þér líkar, þared þú
hafnar þessu, en velur hitt, er eg hefi ekki vel-
þókknan á (segir Drottinn)? Hvørju gétur
þú svarad hér til? taladu! 34. Menn med
viti og hyggnir menn sem heyra mig (tala)
munu segja: „35. Job talar ekki hyggilega,
hans ord eru án vísdóms". 36. Æ! lát Job
reynast enn meir! því hann svarar eins og
þeir ránglátu. 37. Hann bætir gudleysi of-
aná sína synd. Hann sýnir vyrdíngarleysi vor
á medal, og stílar sín mørgu ord gégn Gudi.

## 35. Kapítuli.

Sama tala.

1. Og Elíhú tók ennú til orda og mælti:
2. heldur þú þad rétt sem þú sagdir: eg hefi
betri málstad enn Gud? 3. Þegar þú segir:
hvad stodar þad mig? Hvada gagn hefi eg
af því, ad víkja frá minni synd? 4. Eg vil
svara þér og þínum vinum líka. 5. Skodadu
himininn og sjádu! vyrdtu fyrir þér skýin, hvad
hátt þau eru yfir þér! 6. Efad þú syndgar,
hvad skadar þú hann? Og þó þínar yfir-
trodslur séu margar, hvad gétur þú gjørt hon-
um? 7. Þó þú sért réttvís, hvad gétur þú
géfid honum? Eda hvad skal hann þyggja
af þinni hendi? 8. Vid mann eins og þú
ert, (á rétt) þinn ógudleiki, og þín réttvísi vid
mannsins barn. 9. Med margføldu ofbeldi
kémur madur þeim undirþrikktu til ad hrópa;
þeir kveina undan armi hins stóra manns; 10.
en einginn þeirra segir:" hvar er Gud sem skóp
mig, sem géfur sálma (føgnud) á nóttinni?
(Sálm: 42). 11. Sem gaf oss meira vit
enn dýrunum á mørkinni, og meiri vísdóm,
enn fuglunum undir himninum. 12. Svona
hrópa þeir, en hann ansar ekki, vegna dramb-
semi hinna vondu. 13. Vissulega heyrir Gud
ekki hégómlega beidni. Og sá almáttugi géfur
henni ekki gaum. 14. Miklu sídur þá þú seg-
ir: þú sjáir hann ekki! samt er dómur fyrir
hans augliti; bíd þú hans því ad eins! 15.
En nú, þegar hans reidi ekki straffar, og géf-
ur ekki gaum syndanna gnægt, 16. svo líkur
Job upp sínum munni og frammælir mørg
ord fávíslega.

## 36. Kapítuli.

Sama tala.

1. Og Elíhú hélt áfram og mælti: 2.
géfid mér enn nú lítinn frest, og eg skal upp-
fræda þig, því eg hefi enn nú mikid ad tala
af Guds hálfu. 3. Eg vil sækja mína þekk-
íngu lángt ad, og þeim sem skapadi mig vil
eg útvega rétt. 4. Sannarlega skal mitt tal
ekki vera lýgi. Hreinskilinn madur stendur
frammi fyrir þér. 5. Sjá! Gud er voldugur,
þó fyrirlítur hann eingann, hann er voldugur
af hjartans krapti. 6. Hann lætur ekki hinn
ógudlega lifa, en útvegar þeim adþreingda
rétt. 7. Hann snýr ekki sínum augum frá
þeim réttlátu, heldur setur þá eilíflega med
Kóngum á hásætid, og upphefur þá, 8. og þó
þeir verdi bundnir í hlekki, og fángadir í eymd-

anna snøru; 9. þá sýnir hann þeim ad eins þeirra verk, og þeirra yfirtrodslur, hvørsu þær hafa farid í vøxt; 10. þá opnar hann þeirra eyru fyrir umvøndun, og segir, ad þeir skuli umvenda sér frá ránglætinu; 11. ef ad þeir gégna og þjóna honum, þá enda þeir sína daga í lukku, og sín ár í miklum føgnudi. 12. En ef þeir gégna honum ekki, þá farast þeir fyrir sverdi, og uppgéfa andann sakir heimsku. 13. Vondskufullir auka reidina; þeir bidja ekki þegar hann bindur þá. 14. Þeirra sál deyr í æskunni, og þeirra líf endar medal lauslátra. 15. En hann frelsar þá aumu í þeirra eymd, og opnar í þreyngíngu þeirra eyru. 16. Einnig þig mun hann útleida úr ángistarinnar gini þángad, hvar ekki er þraungt um þig, þitt bord skal vera rólegt og fullt af feiti. 17. En ef þú vinnur til dóms hins ógudlega, þá mun dómurinn og straffid reka hvad annad. 18. Varadu þig því á (hans) reidi, ad hann ekki hrindi þér í fordjørfun, frá hvørri þú ekki med miklu lausnargjaldi gétur sloppid. 19. Ætla hann meti þinn aud mikils? nei! hvørki gullid, né nokkurrar audlegdar krapt. 20. Sækstu ei eptir þeirri nótt (daudanum), þá fólki er burtu kippt úr sínum stad. 21. Gjættu þín, ad þú ekki snúir þínu andliti til ránginda, því þú kýs þau heldur enn eymd. 22. Sjá! Gud er upphafinn í sínum krapti; hvør er kénnari sem hann? 23. Hvør vill vísa honum leid? og hvør þorir ad segja: þú hefir gjørt rángt? 24. Minnstu þess ad þú hrósir hans verkum, sem mennirnir dást ad. 25. Alla verøldina skodar hann; manninn sjer hann lángt frá. 26. Sjá! Gud er mikill og vér þekkjum þad ekki. Hans áratølu, gétur madurinn ekki ransakad. 27. Þegar hann dregur vatnsdropana til sín, þá úthellist regn af dømpunum, 28. sem skýin láta nidurfljóta, þau nidurdrjúpa drjúgum yfir mennina. 29. Og hvør skilur skýanna útbreidslu, og dunur hans tjaldbúdar? 30. Sjá! hann útbreidir sitt ljós í kríngum sig, og felur hafsins rætur, 31. því med þessum heimsækir hann þjódirnar, med þessum géfur hann ríkuglega fædslu. 32. Í bádum høndum heldur hann eldíngunni og stýrir henni gégn þeim sem gjøra uppreisn. 33. Hann lætur þá heyra sína þrumu raust, uppyfir fénadinum og yfir því sem sprettur af jørdunni.

B. 7. Innsiglar, þ. e. hindrar frá vinnu, med óv.dri.

## 37. Kapítuli.

Sama tala.

1. Já! fyrir þessum skélfist mitt hjarta og støkkur upp úr sínum stad. 2. Heyrid! heyrid! dun hans raddar, og hvørt buldur útgeingur af hans munni! 3. Undir øllum himninum lætur hann hana fara áfram, og hennar eld (ljós) til jardarinnar enda. 4. Strax þar eptir øskrar hans raust, hann þrumar med háum róm, og hann dregur ekki af honum; lætur sína raust heyrast. 5. Gud þrumar undrunarlega med sinni raust, hann gjørir mikla hluti og vér skynjum þá ekki. 6. Því hann býdur snjónum, og segir: þú skalt falla á jørdina! og steypiskúrum og hridjum, ad úthellast af øllum mætti. 7. Hann innsiglar a) hvørs manns hønd, ad allir menn sem hann gjørdi, skuli þekkja hann. 8. Og villudýrin verda ad fara í sínar holur, og vera í sínum bælum. 9. Frá sudri kémur stormvidrid, og nordanad kuldinn. 10. Af Guds Anda kémur ísinn, svo þreyngir ad vatnsins breidd. 11. Aptur burtrekur hreinvidrid þokuna, hann tvístrar skýunum med sínum eldi. 12. Og hann snýr sér í allar áttir, til ad fullgjøra allt hvad hann (Gud) býdur á jardarkrínglunni. 13. Hvørt sem þad skédur til hegníngar, eda landinu til góds, ellegar af nád, lætur hann (eldínguna) nidurslá. 14.

Taktu eptir þessu, Job! stansadu þig, og géf þú
gaum ad Guds dásemdum. 15. Veitstu nær
Gud snýr sinni hugsan til þeirra, nær hann
lætur eldínguna skína frá sínu skýi? 16. Hef-
ir þú vit á skýanna jafnvigt, þessum dásemd-
um hans, sem er fullkominn í vísdómi? 17.
Eda hvørnig þín klædi verda heit, þegar hann
gjørir lygnt sudur í landinu? 18. Hefir þú
útþanid skýin med honum, føst, einsog steypt-
ann spegil?. 19. Kenndu oss hvad vér eig-
um ad segja vid hann, því vér gétum ei reglu-
lega ímyndad oss neitt vegna dymmu. 20.
Mun honum verda sagt frá ad eg tali? ætla
nokkur géti talad vid hann? nei! sá mætti
verda uppsvelgdur. 21. Nú sjer madur ekki
þad ljós sem skín í skýunum; en þegar vedr-
id fer áfram, svo hreinsar þad þau. 22.
Nordanad kémur gullglampinn, (nordurljósid)
óttaleg er Guds hátign. 23. Hann er sá al-
máttugi; vér finnnm hann ekki, hann er mjøg
sterkur, réttlátur og sannsýnn; hann undirþrykk-
ir ekki. 24. Þarfyrir skulu menn óttast hann,
en jafnvel hinir vísustu ekki sjá hann.

## 38. Kapítuli.

Drottinn ávítar Job fyrir dælsku.

1. Eptir þad svaradi Drottinn Job af
vindbil og sagdi: 2. hvør er þessi sem for-
myrkvar Guds rád med óskynsømum tølum?
3. Vel og gott! umgird þínar lendar, sem mad-
ur, svo skal eg spyrja þig, og þú skalt fræda
mig. 4. Hvar varstu þegar eg grundvalladi
jørdina? segdu frá, ef þú hefir skilníng og vit!
5. Hvør hefir sett henni mál, ad þú vissir þad,
eda hvør útþandi snúruna yfir hana? 6. Hvar
á er hennar grundvøllur settur? hvør lagdi
hennar hornstein, 7. þegar morgunstjørnurn-
ar súngu gledisaung, og øll Guds børn føgn-
udu? 8. Og hvør innilokadi hafid med hurd-
um þegar þad frambrautst og gékk út af mód-
urlífi? 9. Þegar eg gaf því skýin fyrir fatn-
ad og þokuna fyrir reifa, 10. þegar eg setti føst
mín takmørk í kríngum þad, og slár og hurd-
ir, 11. og sagdi: „híngad skaltu koma og ekki
leingra; hér skulu þínar stoltu bylgjur brotna."
12. Hefir þú á þínum døgum rádid yfir morgn-
inum? hefir þú vísad morgunrodanum á sinn
stad? 13. svo ad hann nær út yfir jardarinnar
jadar, og þeir a) ógudlegu skélfast fyrir hon-
um? 14. Þá jørdin umbreytist einsog lakkid
(af innsiglinu) og (allt) einsog færist í klædn-
ad. 15. Og þeir ógudlegu sviftast sínu ljósi b),
og sá upplypti armur verdur sundurbrotinn.
16. Hefir þú komid til hafsins uppsprettu? og
hefir þú gégnumfarid hid innsta afgrunn? 17.
Hafa daudans port opnad sig fyrir þér? Ell-
egar hefir þú sjed port daudans skugga? 18.
Þekkir þú allt, svo breid sem jørdin er?
segdu til ef þú veitst þad allt saman! 19.
Hvar er vegurinn til ljóssins bústada? og
myrkrid, hvar er þess adsetur? 20. ad þú gjæt-
ir komid því inn fyrir sín landamerki, og þekkt
gøtuna ad þess húsi. 21. Þú veitst þad, því
þá varstu fæddur og þinna daga tal er mikid!
22. Hefir þú komid til fordabúrs snjáfarins?
eda hefir þú sjed fordabúr haglsins? 23. sem
eg spara til hørmúngar tímans, til strídsins og
bardagans daga. 24. Hvar er sá vegur á
hvørjum ljósid útbreidist og austanvindurinn
dreifist yfir jørdina? 25. Hvør bjó til rennur
fyrir steypiregnid? hvør veginn fyrir eldínguna?
26. svoad rignir í þad land, hvar einginn er, í eydi-
mørkina, hvar eíngin madur býr, 27. svoad
þeir audu og óbyggdu stadir mettast, og gras-
id kémur upp. 28. Hefir og regnid fødur?
eda hvør hefir gétid daggarinnar dropa? 29.
af hvørs kvidi er ísinn útgeinginn? og himins-
ins hrím, hvør fæddi þad? 30. Vatnid verdur

V. 13. *a.* Þ. e. þjófar og mordíngjar og hórkollar etc. V. 15. *b.* Al. myrkrinu. V. 21. Þú veitst þad, líklega: Gud.

hardt sem steinn, og djúpsins yfirbord tollir sam-
an. 31. Hnýttir þú sjøstyrnisins band? eda
gétur þú leitst Orions (fjósakonanna) belti, 32.
lætur þú planeturnar koma á sínum tíma? elleg-
ar framleidir þú byrnuna a) med hennar børn-
um. 33. Þekkir þú himínsins løg? eda gétur
þú ákvardad hans herradæmi yfir jørdunni?
34. Gétur þú lypt þinni raust upp til skýanna,
svoad vatnsins margfjøldi hylji þig. 35. Gét-
ur þú sendt eldíngarnar svo þær fari og segi:
hér erum vér! 36. Hvør lagdi vísdóm í þeirra
sveiflur? og hvør gaf loptsjónunum vit? 37.
Hvør telur skýin med vitsku? og hvør tæmir
himinsins vatnsílát? 38. svoad rikid samanlím-
ist fast, og jardhnausarnir tolli hvør vid annann?

## 39. Kapituli.

Sama umtalsefni.

1. Finnur þú brádina fyrir Ljónsinnuna?
mettar þú grædgi ljónshvolpanna? 2. þegar
þeir liggja í sínu bæli og vaka yfir veidi í sinni
holu? 3. Hvør býr til fædu hrafninum, þegar
hans úngar kalla til Guds og fløgra til og frá
af því þá vantar æti? 4. Veitstu tímann nær
steingeiturnar bera? eda géfur þú gaum ad hind-
anna fædíngar hrídum? 5. Hefir þú talid mán-
udina sem þær gánga med? eda veitstu tímann
nær þær fæda? 6. þegar þær beygja sig, þegar
þær fæda sína kálfa, og sleppa því út sem þær
hafa þjáníng af. 7. Þeirra kálfar verda sterk-
ir, þeir vaxa á mørkinni, þeir fara burt og koma
ei aptur til þeirra ɔ: mædranna. 8. Hvør hefir
látid villi-asnan gánga lausann? hvør leysti
bønd skógar-asnans? 9. hvørjum eg gaf eydi
velli fyrir bústad, og eydimørk fyrir heimkinni.
10. Hann hlær ad stadarins hávada, og heyrir
ekki adkall rekstrarmannsins, 11. fjalla hríngur-
inn er hans beitiland, ad allri grænku leitar
hann. 12. Mun villi-nautid vilja þrælka fyrir
þig? ætla þad verdi nóttina út, vid þína jøtu?
13. gétur þú fest þad med reipi vid plógtréd?
ætla þad plægi dalina á eptir þér? 14. Gét-
ur þú reidt þig á þad, af því þess kraptur er
mikill, gétur þú fengid því þína vinnu? 15.
gétur þú trúad því fyrir ad flytja þitt sád
heim, og safna því í þína hlødu? 16. Strúts-
fuglsins vængir sem honum þykir vænt um, eru
þeir storksins vængir og fjadrir? 17. Því hann
fær jørdinni sín egg og lætur þau hitna í sand-
inum, 18. og gleymir ad fóturinn gétur brotid
þau og villidýr sundurtrodid þau. 19. Hann
er hardur vid sína únga, eins og þeir væru ekki
hans. Forgéfins er hans fyrirhøfn, hann er
án hrædslu. 20. Því Gud synjadi honum um
vísdóm og gaf honum ekki hyggindi. 21. En
þegar hann sveiflar sér í loptid, þá gjørir hann
gis ad hestinum og þeim sem á honum situr. 22.
Géfur þú hestinum krapt? eda prýdir þú hans
háls med hneggi? 23. Kénnir þú honum ad
støkkva eins og grashoppa støkkur? (fallega og
óttalega frýsar hann). 24. Hann stappar nid-
ur í jørdina, og gledur sig vid sinn styrkleika.
Hann fer út móti þeim hertýgjada. 25. Hann
hlær ad hrædslunni og óttast ekki, og hopar ekki
fyrir sverdinu, 26. á baki hans glamrar í pilna
koffrinu; þad glampandi spjót og lensa. 27.
Fírugur og frísandi rífur hann upp jørdina og
skeytir ei um herlúdursins þyt. 28. Þegar her-
lúdurinn géllur hátt, segir hann: hví! lángt frá
finnur hann lykt bardagans og høfdíngjanna
buldur og hróp. 29. Flýgur haukurinn eptir
þínu viti, breidir út sína vængi mót sudri? 30.
flýgur ørnin hátt eptir þínu bodi, og byggir á
hædunum sitt hreidur? 31. á klettunum býr og
byggir hún á nóttunni; á hvøssum klettum og
fjalltindum. 32. Því finnur hún æti? lángt
frá sjá hennar augu allt um kríng. 33. Og

V. 32. *a.* Byrna: stjørnu flokkur, vagninn. V. 23. Dýrd hans nasa er óttaleg.

hennar úngar drekka blóð. Hvar sem valur
er, þar er hún.

34. Og Drottinn snéri sér til Jobs og sagdi:
35. vill nú sá lastmálgi þrátta vid hinn al-
máttuga? Sá sem átaldi Gud, hann svari
uppá þetta!

36. Þá ansadi Job Drottni og sagdi: 37.
Sjá! eg em allt of lítilmótlegur; hvørju skal
eg svara þér. Eg legg á munninn mína hønd.
38. Einusinni taladi eg, en skal ei svara tvisvar-
sinnum, en eg gjøri þad ei meir.

## 40. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og Drottinn ansadi Job (úr) storm-
vidrinu og sagdi: 2. vel og gott! umgird sem
madur þínar lendar! a) eg vil spyrja þig
og þú skalt fræda mig. 3. Viltu gjøra minn
rétt ad eingu? Viltu fordæma mig svo ad þú
verdir réttlátur? 4. Ætla þú hafir arm sem
Gud? Gétur þú þrumad med reidarslagi sem
hann? 5. Prýd þú þig, kjæri! med hátign og
ypparlegleika; íklæd þig heidri og ljóma; 6.
útaus ákafa þinnar reidi, audmýktu sérhvørn
dramblátann med því ad renna til hans auga.
7. Líttu til hvørs og eins drambláts, og fell
þú hann, og sundurmerdu þá ógudlegu hvar
sem þeir hittast. 8. Fell þú þá alla saman í
duftid! byrg þú þeirra ásýnd í myrkri! 9.
þá skal eg líka prísa þig, því eg sje þá, ad
þín hægri hønd frelsar þig. 10. Sjá, kjæri!
Behemot b), sem eg skapadi eins og þig, þad
etur gras sem uxi.

11. Sjá, kjæri! hvílíkur kraptur er í þess
lendum! hvílíkur styrkleiki í vødvum þess búks.
12. Þad beigir c) svírann eins og Sedrus-
tré, sinarnar í þess limum eru samanfléttadar:
13. þess leggir eru sem eir-pípur, þess bein
eins og járnsteingur. 14. Þad er hin fyrsta
(sképna) af Guds verkum, sá sem þad skapadi,
rétti því sitt sverd. 15. Fjøllin bera því fód-
ur, á hvørjum øll villudýrin leika sér. 16.
Þad liggur undir laufgudum trjám, felur sig
í reirnum í forædinu. 17. Þau laufgudu tré
fela þad med sínum skugga. Vídir-runnarnir,
hjá læknum, skýla því.

18. Sjá! áin ólgar fram; þad hrædist ekki,
þad er rólegt, þóad Jórdan belgdi upp ad þess
gini. 19. Gétur nokkur veidt þad, þegar þad
varar sig? ellegar sett taug í þess nef? 20.
Kap. 41. Gétur þú veidt Leviathan, (krókodíl-
inn) med aungli? eda dregid færi í gégnum
hans túngu? 21. Gétur þú sett hlekk í hans
skolt? eda hríng í hans kjálka? 22. Ætla
hann muni frambera fyrir þig margar aud-
mjúkar bænir? edur tala vid þig vinsamleg
ord?. 23. Eda gjøra vid þig sáttmála, ad
þú gjørir hann ad ánaudugum þræl? 24.
Gétur þú leikid vid hann sem vid fugl? eda tjódr-
ad hann vid þínar þernur? 25. Halda félag-
arnir veitslu sakir þessa dýrs, og útbíta því
medal kaupmanna? 26. Gétur þú fyllt hans
húd med pílum, eda hans høfud med skeyt-
um? 27. Legg þína hønd á hann! þú munt
þá muna til þess bardaga, og ekki gjøra þad
optar. 28. Sjá! hans hugur bilar, (þess
sem vill veida hann), hann dettur (af hrædslu)
nidur, þegar hann sjer hann.

## 41. Kapítuli.

Sama efni.

1. Einginn er svo djarfur ad hann þori
ad æsa hann til. Hvør er sá sem þá géti
stadist fyrri minni augsýn? 2. Hvør hefir
mér fyrri géfid, ad eg skyldi honum endurgjalda?
Hvad sem undir øllum himninum er, þad er mitt.

V. 2. *a.* Umgird etc: bú þig út í einvíg móti mér. V. 10. *b.* Behem: stædsta dýr, fíllinn, ætla nokkrir, adrir, Nílhestur-
inn. V. 12. *c.* Halann segja adrir.

3. Ei vil eg þeigja um hans limi, ei um hans mátt og hans fallega skøpulag. 4. Hvor hef-ir lypt upp efra parti hans kápu? Hvør þor-ir ad koma ´undir hans tvøfalda tanngard? 5. Hvør hefir opnad dyrnar ad hans gini? (dyrum hans andlitis)? tannarød hans er ótta-leg. 6. Hann stærir sig af sterkum skjøldum (tønnum), sem standa þétt saman, einsog þeir væru samanfestir med føstu lakki. 7. Þeir eru svo nánir hvør ødrum, ad loptid kémst ekki á milli. 8. Þeir tolla fast hvør vid annann, loda saman og adskiljast ekki. 9. Eldur brennur úr nøsum hans og hans augu eru sem morgun-rodans glampi. 10. Ut af hans gini gánga logandi blis, eldneystar fara út. 11. Ur nøs-um hans útgeingur reykur, einsog upp úr sjód-andi potti og katli. 12. Hans andardráttur kveikir í kolum, og logi stendur úr hans munni. 13. Í hans hálsi býr krapturinn, og ángistin støkkur á undan honum. 14. Vødvar hans holds ´hánga saman, fastir á honum og óbifan-legir. 15. Hans hjarta er eins fast fyrir og tinnusteinn, já, einsog sá nedri kvarnarsteinn. 16. Þegar hann hefur sig upp, þá skélfast hinir øblugu, þegar hann brýtst fram, a) þá hreinsa þeir sig frá synd. 17. Rádist einhvør ad honum med sverdi, dugir ekki, né spjóti né lensu né heldur ørvum. 18. Hann metur járn-id sem strá, eirid sem fúastaur. 19. Bog-ans son b) mun ei snúa honum á flótta. Slaungusteinar verda honum ad øgnum. 20. Kilfan er fis, og hann hlær ad spjótsins hvin. 21. Hvassir steinar eru undir honum, og hann kastar í forædid því sem hefur egg. 22. Hann lætur hilinn ólga einsog þá ólgar í potti. Hann gjørir hafid líkt sjódandi vidsmjøri (oliu). 23. Hans braut leyptrar eptir hann, menn halda hafid sé gráhært. 24. Eingin (sképna) á jørdunni er honum lík. Hann er skapadur án hrædslu. 25. Nidur á allt þad háa horfir hann. Hann er Kóngur yfir øllum (eydimerk-urinnar børnum), — villudýrum.

## 42. Kapituli.

*Job audmýkir sig algjørlega. Fær umbun, og hans vinir átølur.*

1. Þá ansadi Job Drottni og sagdi: 2. eg kannast vid ad þú megnar allt og ad þér er einkis varnad. 3. Hvør er sá sem fávíslega (gjøri lítid úr) þínu rádi? svo hefi eg þá tal-ad þad sem eg ekki skildi; þad sem var mér undarlegt, sem eg ekki þekkti. 4. Hlusta þú samt á, eg vil tala! eg vil spyrja þig, uppfræd þú mig! 5. Med heyrandi eyra heyrdi eg þig, en nú sjer mitt auga þig. 6. Því hefi eg vidbjód á sjálfum mér, og ydrast í dufti og øsku.

7. Og þad skédi eptir ad Drottinn hafdi talad þessi ord vid Job, ad Drottinn mælti vid Elifas af Teman: mín reidi er upptendr-ud gégn þér og þínum tveimur vinum, því þér hafid ekki talad svo rétt um mig, sem minn þénari Job. 8. Svo takid nú 7 únga bola og 7 hrúta, og farid til míns þénara Jobs, og offrid brennifórnum fyrir ydur; og Job, minn þénari, skal bidja fyrir ydur, því hans bæn vil eg mikils meta, og ekki fara med ydur eptir ydar fávitsku; því þér hafid ekki talad rétt um mig, sem minn þénari Job.

9. Þá fóru þeir Elifas af Teman og Bildad af Sua og Sofar af Naema, og þeir gjørdu sem Drottinn hafdi sagt þeim, og Drottinn mat Jobs tilløgur mikils. 10. Og Drottinn bætti Job hans missir, eptir ad hann hafdi bedid fyrir sínum vinum, og Drottinn jók allt þad sem Job hafdi átt, til helmínga. 11. Og all-ir hans brædur, og allar hans systur, og allir

V. 13. Angistin etc. allir flýa af hrædslu fyrir þessu dýri Leviat: V. 16. *a.* Búa sig undir daudann. V. 19. *b.* Bogmadurinn eda ørvarnar.

sem þekktu hann ádur, komu til hans og átu braud í hans húsi, og vorkéntu honum og hugg=udu hann, vidvíkjandi øllu því illa sem Drottinn hafdi látid koma yfir hann; og hvør gaf honum einn peníng, (Kesíta) og hvør og einn grip af gulli. 12. Og Drottinn blessadi Job, svoad þad sem hann átti seinna, var meir enn þad sem hann hafdi átt fyrri; því hann eignadist fjórtán þúsund fjár, og sex þúsund úlfalda og þúsund pør akneita og þúsund øsnur, 13. og hann eignadist sjø syni og þrjár dætur, 14. og hann kalladí nafn þeirrar fyrstu Jemima, og þeirrar annarar nafn Kesía, og þeirrar þridju nafn Keren Happuk, 15. og þar fundust ekki svo frídar konur í øllu landinu sem Jobs dætur, og fadirinn gaf þeim arf med þeirra brædrum. 16. Og Job lifdi eptir þetta hundrad og fjørutíu ár, og sá sín børn og þeirra børn í 4da lid. 17. Og Job dó gamall og saddur lífdaga.

# Davíds Sálmar.

## Fyrsta Bók.

### 1. Sálmur.

Sæla hinna gudhræddu. Ófarir hinna vondu.

1. Sæll er sá madur, sem ekki geingur í rád hinna ógudlegu, og ekki stadnæmist á vegi hinna vondu, og ekki situr í samfundi hinna hádgjørnu, 2. heldur hefir mætur á Drottins løgum og ígrundar hans løgmál dag og nótt. Lúk. 2, 28. 3. Hann er sem tré rótsett á vatnsbøkkum, sem ber ávøxt á réttum tíma, hvørs blød ekki visna, allt hvad hann gjørir þad lukkast honum. 4. Ødruvísi er þeim ógudlegu farid, þeir eru sem fis, hvørju vindurinn feikir. 5. Því standast þeir ógudlegu ei í dóminum, og ei hinir vondu í safnadi hinna réttlátu, því Drottinn þekkir veg hinna réttlátu, 6. en vegur ógudlegra er slis.

### 2. Sálmur.

Uppreisn gégn Drottins smurda til einkis, heilrædi.

1. Hví æda þjódirnar? hví ígrundar fólk fánýtar rádagjørdir a)? 2. Kóngar jardarinnar rísa upp, og høfdíngjarnir bera sín rád soman móti Drottni og hans smurda, 3. og segja: „Vér skulum slíta í sundur þeirra bønd og burtsnara þeirra fjøtrum". 4. Sá sem býr í himninum hlær, Drottinn gjørir ad þeim gis. 5. Hann talar þeim þá til í brædi, og skélfir þá í sinni heipt, og segir: 6. eg hefi sjálfur smurt minn Kóng yfir mitt heilaga fjall Síon. 7. Eg vil kunngjøra Herrans áliktun; hann sagdi vid mig: þú ert minn sonur, í dag ól eg þig. 8. Bid þú mig, og eg skal géfa þér þjódirnar ad erfd, og jardarinnar enda til eignar. 9. Þú skalt sundur slá þá med járnspíru, eins og leirkér skaltu þá sundurmola. 10. Og verdid nú hyggnir, þér Kóngar! látid ydur segjast, þér jardarinnar dómendur! 11. Þjónid Drottni med ótta, og fagnid med lotníngu. 12. Mynnist vid Soninn, ad hann ekki reidist og þér tortínist á ydar leid, því skjótt upptendrast reidi hans.. Sælir eru þeir allir sem honum treysta.

V. 1. a. Postg. 4, 52. V. 7. Postgb. 13, 33. Ebr. 1, 5.

## 3. Sálmur.

Kvein Davíds, huggun og bæn.

1. Sálmur Davíds þegar hann flúdi
fyrir Abſalon ſyni ſínum. 2. Drottinn!
hvørſu margir eru mínir óvinir! margir þeir ſem
ríſa móti mér. 3. Margir ſem ſegja um mig:
hann hefir ékkért athvarf hjá Gudi, Sela! (mál-
hvíld). 4. En þú Drottinn! ert minn ſkjøldur,
minn heidur og ſá ſem upplyptir mínu høfdi. 5.
Mitt bænakvak ſendi eg Drottni, og hann ſendir
mér bænheyrſlu frá ſínu heilaga fjalli. Málhvíld.
6. Eg legg mig fyrir og ſef, og eg vakna,
því Drottinn vardveitir mig. 7. Eg óttaſt
ekki þóad tíu þúſundir manns umkríngi mig,
og ad mér þreyngi. 8. Ríſtu upp, Drottinn!
frelſa mig, minn Gud! því þú ſundurbrýtur
kjálka allra minna óvina, ſundur molar tennur
allra ógudlegra. 9. Hjá Drottni er frelſun.
Þín bleſsan veri yfir þínu fólki. Málhvíld.

## 4. Sálmur.

Bæn. Amínníng. Trúnadartrauſt.

1. Til hljódfærameiſtarans (ad sýng-
ja) á hljódfæri. Sálmur Davíds. 2.
Bænheyr þú mig þá eg kalla, Gud míns réttar! Í
þreyngíngunni rýmka þú um mig! myſkuna mér
og heyr mína bæn! 3. Þér mannanna børn!
hvørſu leingi viljid þér hnidra minni ſæmd!
hvørſu leingi viljid þér elſka hégómann og lýgi?
(málhvíld). 4. Vidurkénnid þó ad Drottinn
hefir útvalid ſinn gudhrædda (dýrkara). Drott-
inn heyrir, þá eg ákalla hann. 5. Óttiſt og
variſt ſynd, athugid þad í ydar rúmi, og verid
kyrrlátir (málhvíld), 6. offrid réttlætis fórn
og treyſtid Drottni. 7. Margir ſegja: hvør
mun audſýna oſs gott? Drottinn! lyptu ljóſi
þíns andlitis yfir oſs. 8. Þú géfur mínu hjarta
meiri gledi enn þá ſem menn hafa, þá korn
þeirra og vín er ríkuglegt. 9. Í fridi leggſt
eg fyrir, í fridi ſef eg, því þú einn, Drottinn!
ert þad, ſem lætur mig búa óhultann.

## 5. Sálmur.

Afbeidni og bæn.

1. (Ad ſýngja) á flautu til hljódfæra-
meiſtarans. Sálmur Davíds. 2. Drott-
inn! hneig þín eyru til minna orda! taktu eptir
minni andvarpan! 3. Géfdu gaum ad mínum
kveinſtaf, minn Kóngur og minn Gud! þér ſendi
eg mína bæn. 4. Árla, Drottinn! heyrir þú mína
rauſt, árla kém eg fram fyrir þig og bíd þín.
5. Þú ert ekki ſá Gud, ſem ógudlegt athæfi
líki. Sá vondi mun ekki búa hjá þér. 6.
Þeir dramblátu munu ekki ſtandaſt fyrir þinni
augſýn. Þú hatar alla ránglátá, þú tortínir
þeim ſem tala lýgi. 7. Þeir blódgýrugu og
følſku eru Drottni andſtygd. 8. En í trauſti
þinnar miklu miſkunar vil eg inngánga í þitt
hús, og bidjaſt fyrir í þínu heilaga muſteri í
þínum ótta. 9. Víſa þú mér veg þinna rétt-
inda, ſakir minna óvina, gjør mér greidann
þinn veg. 10. Því í þeirra munni er einginn
ſannleiki, innra býr med þeim mikil vondſka,
þeirra barki er opin grøf, túngu-mjúkir eru
þeir. 11. Láttu þá, ó Gud! fá dóms áfelli,
lát þá falla á ſínum áſetníngi, burtſkúfa þeim
ſakir þeirra mørgu misgjørnínga, því þeir eru
þér þverbrotnir.

12. Þá munu allir þeir gledjaſt ſem reida
ſig á þig, þeir munu gledjaſt ad eilífu, því
þú heldur yfir þeim þinni hendi; og þeir ſem
elſka þitt nafn, munu í þér gládir vera. 13.
Því þú, Drottinn! bleſsar þann réttláta og
verndar hann med þinni nád, eins og med
ſkildi.

## 6. Sálmur.

Bæn um heilbrygdi.

1. Davíds Sálmur til hljódfærameiſt-
arans ad ſpila á áttſtreingjad hljódfæri.

2. Drottinn! straffa mig ekki í þinni reidi og typta mig ekki í þinni grimd. 3. Drottinn! vertu mér miskunsamur, því eg ørmagnast, lækna mig, Drottinn! því mín bein skjálfa, og mín sál er mjøg óróleg. 4. O! Drottinn! hvørsu leingi? (skal eg pínast). 5. Snú þér til mín, Drottinn! frelsa mína sálu, frelsadu mig sakir þinnar miskunar. 6. Því í daudanum man einginn til þín; hvør vegsamar þig í helju? 7. Eg em þreittur af andvarpan, eg væti alla nóttina mína sæng og bleiti med mínum tárum mitt legurúm. 8. Mitt andlit er følnad af ángist, þad er ordid ellilegt, því olla mínir mørgu óvinir. 9. Víkid frá mér allir illgjørdamenn, því Drottinn hefir heyrt minn kveinstaf. 10. Drottinn hefir heyrt mína audmjúka bæn. Drottinn bænheyrir mig. Sneypast skulu og ákaflega skélfast allir mínir óvinir, á flótta komast og svíplega sneypast.

## 7. Sálmur.

Bæn um Guds hjálp.

1. Kløgun Davíds fyrir Drottni yfir Kusk Benjamíníta. 2. Drottinn minn Gud! eg flý til þín, frelsa mig frá øllum mínum ofsóknurum og bjarga mér, 3. ad þeir ekki sem ljón sundurtæti mig, (mitt líf) medan þar er einginn sem bjargar. 4. Drottinn minn Gud! hafi eg til þess unnid, séu rángindi í minni hendi, 5. hafi eg illa launad þeim sem hafdi frid vid mig, hafi eg rænt þann sem án saka var minn óvinur, 6. þá ofsæki mig minn óvinur og nái mér, og nidurtrodi mitt líf til jardar og leggi mína sál í duptid, (málhvíld). 7. Stattu upp, Drottinn! í þinni reidi, upphef þig gégn ædi minna óvina, hrada þér, mér til hjálpar, vakna mér (til lids) og set rétt. 8. Fólkid safnist ad þér, kom til baka á hædina sakir þess, 9. Drottinn dæmir fólkid, dæm þú mig, Drottinn! eptir minni réttvísi, og lát mér vegna eptir mínu sakleysi. 10. Láttu þó vondsku hinna ógudlegu fá enda, og stadfestu þann réttláta, þú réttláti Gud, sem ransakar hjørtun og nýrun. 11. Minn skjøldur er hjá Gudi, hann frelsar þá sem eru hreinhjartadir. 12. Gud er réttlátur dómari, hann er sá Gud, sem reidist daglega, 13. ef madurinn ekki umvendir sér, þá hvetur hann sitt sverd, spennir sinn boga, og midar til. 14. Hann hefur dráps vopn til reidu honum á móti. Hann gjørir sínar pílur brennandi. 15. Sá (ógudlegi) gat ránglætid, gékk þúngadur med óbóta verk, og fædir lýgi. 16. Hann hefir grafid grøf og gjørt hana djúpa, en hann mun falla í þá grøf sem hann gróf; 17. honum mun koma í koll hans illska og hans ránglæti yfir hans hvirfil. 18. Eg skal þakka Drottni eins og hans réttlæti á skilid, (eptir hans réttlæti), og vegsama nafn Drottins hins ædsta.

## 8. Sálmur.

Gjædska og hátign Skaparans.

1. Til hljódfærameistarans ad syngja á Githith (hljódfæri). Sálmur Davíds. 2. Drottinn vor Kóngur (stjórnari)! hvørsu dýrdlegt er þitt nafn á allri jørdunni, sem upplyptir yfir himininn þinni hátign. 3. Af munni barna og brjóstmylkinga hefir þú tilbúid þér lofgjørdina, sakir þinna óvina, til þess ad nidurþagga þína mótstødumenn, þá hefndargjørnu. 4. Þegar eg sje þinn himin, verkin þinna handa, túnglid og stjørnurnar, sem þú tilbjóst, 5. (þá kémur mér til hugar), hvad er madurinn þess ad þú minnist hans og mannsins barn ad þú vitjar þess! 6. Þú gjørdir hann litlu óædri enn Einglana, en þú krýndir hann sæmd og heidri. 7. Þú gjørdir hann herra yfir þínum handaverkum, alla hluti lagdir þú undir hans fætur, 8. saudi og naut, fénad allann og dýr merkurinnar (villudýrin), 9. fuglana undir himninum og fiskana í sjónum,

sem fara um vatnsins veg. 10. O Drottinn, vor Kóngur! hvørsu dýrdlegt er þitt nafn á allri jørdinni!

## 9. Sálmur.

Von og bæn þess adþreyngda.

1. Til hljódfærameistarans á Almuth labben*) (hljódfæri). Sálmur Davíds.
2. Eg vil vegsama Drottinn af øllu hjarta, eg vil segja frá øllum þínum dásemdarverkum, 3. eg vil fagna og gledjast í þér, eg vil sýngja lofgjørd þínu nafni, þú ædsti. 4. Þegar þú lætur mína óvini flýa, hníga og tortínast fyrir þínum svip. 5. Því þú dæmir mig og tekur ad þér mitt málefni, þú situr á þínum dómstól, þú sem dæmir med réttvísi. 6. Þú ógnar þjódunum, og leggur ad velli þá ógudlegu, þú afmáir þeirra nafn æ og ad eilífu. 7. Óvinarins eydileggíng er ad eilífu endud, hans stadi hefir þú afmád, þeirra endurminníng er afmád. 8. Já, Drottinn situr stødugt ad eilífu, hann reisir sitt hásæti til dóms. 9. Hann dæmir verøldina med réttvísi, hann segir upp dómum yfir fólkinu med sannsýni. 10. Drottinn er athvarf lítilmagnans, og hæli á neydarinnar tíma. 11. Þeir reida sig á þig, sem þekkja þitt nafn, því þú yfirgéfur þá ekki sem leita þín, Drottinn!

12. Sýngid lof Drottni, sem býr á Síon, kunngjørid hans verk medal fólksins, 13. því hegnarinn man til þeirra aumu og gleymir ekki hrópi hinna undirþrykktu. 14. Miskuna mér, Drottinn! sjádu hvad eg verd ad lída af þeim sem hata mig, lypt þú mér upp úr daudans dyrum, 15. svo eg meigi kunngjøra þitt lof í Síons dóttur hlidum, ad eg meigi fagna vid þitt frelsi. 16. Þjódirnar søkkva í þá grøf sem þær gjørdu, þeirra eigin fótur flækist í því neti sem þær leynilega útþøndu. 17. Drottinn er kunnur sem sá, er lætur rétt ské; í verkum sinna handa er sá ógudlegi flæktur. (Hørpuspils) málhvíld. 18. Láttu þá ógudlegu fara til helju, allt fólk sem Gudi gleymir. 19. Sá fátæki má ei gleymast eilíflega, von hins vesæla má ei ætíd bregdast. 20. Stattu upp, Drottinn! láttu manninn ekki metnast, láttu fólkid dæmast fyrir þínu augliti. 21. Láttu, Drottinn! ótta ad þeim koma; láttu fólkid vita ad þeir eru menn. Málhvíld.

V. 1. *) Eda: vid dauda sonarins.

## 10. Sálmur.

Bæn mót ofríki.

1. Hví stendur þú, Drottinn! svo fjærri? hví felur þú þig þegar áliggur? 2. Þeir adþreyngdu plágast af drambsemi hinna ógudlegu, þeir verda fángadir af brøgdum sem þeir (ógudlegu) upphugsa. 3. Því sá ógudlegi stærir sig af girnd sinnar sálar, og sá gripdeildasami hrósar happi, og lastar Drottinn. 4. Sá ógudlegi (segir) í sínum ofmetnadi: „hann (Gud) skiptir sér ekki af þessu", þetta er øll hans hugsan: „einginn Gud er til." 5. Hans vegir lukkast honum ætíd; þínir dómar eru honum fjærlægir, alla sína óvini forsmáir hann. 6. Hann hugsar med sjálfum sér: „aldrei skal eg skeika, frá einni kynslód til annarar, nær mér eingin óheppni." 7. Af formælíngum er hans munnur fullur, af svikum og falsi undir hans túngu er ólukka og ránglæti. 8. Hann liggur í launsátri í þorpunum, frá launsátrinu drepur hann þann saklausa, hans augu skima eptir lítilmagnanum, 9. hann liggur í leyni eins og ljón í sínu bæli, hann situr um ad veida aumíngja, hann nær honum, því hann veidir hann í sínu neti. 10. Hann gjørir lítid úr sér, beigir sig og støkkur svo med sterkum hrømmum yfir lítilmagnann. 11. Hann segir í sínu hjarta: Gud hefir gleymt því, hann hefir haldid fyrir augun, og sjer þad ekki ad eilífu. 12. Stattu upp, Drottinn! Gud, lyptu upp þinni hendi, gleymdu ekki

þeim aumu! 13. Hvar fyrir skal sá ógudlegi forsmá Gud og segja í sínu hjarta: þú skeytir ei um þad. 14. Jú! þú sjer þad, því þú horfir á neydina og þreyngínguna, þú skrifar þad á þína hønd. Sá magnlitli reidir sig á þig. Þú ert hjálpari hinna fødurlausu. 15. Sundurmola arm hins ógudlega; og þann ógudlega — ofsæktu hans ógudlegleika, þángad til þú ekki finnur hann framar. 16. Drottinn er Konúngur æ og eilíflega. Þjódirnar verdi útreknar úr hans landi! 17. Þú, Drottinn! heyrir bæn hinna ólukkulegu, þú styrkir þeirra hjørtu, þitt eyra hyggur ad. 18. Þú lætur þann fødurlausa og lítilmagnann ná sínum rétti; ad menn ekki áfram haldi ad flæma fólk úr landinu.

## 11. Sálmur.

Davíds harmatolur og trúnadartraust.

1. Til hljódfærameist: Sálmur Davíds. A Drottinn treysti eg, því segid þér þá vid mig: flýid til ydar fjalla einsog fuglinn. 2. Því þá þeir ógudlegu spenna bogann, og leggja ør á streing, til ad skjóta á þá í dymmunni sem eru hreinhjartadir. 3. Þegar grundvøllurinn er nidurrifinn, hvad gétur þá sá réttláti gjørt? 4. Drottinn býr í sínu heilaga musteri. Drottins hásæti er á himnum, hans augu sjá, hans augnalok prófa mannanna børn. 5. Drottinn prófar þann réttláta, en hans sála hatar þann ógudlega og þann sem elskar ofbeldi. 6. Hann lætur rigna snørum, eldi og brennisteini yfir þá ógudlegu, og glóandi vindur verdur þeirra hlutdeild. 7. Því Drottinn er réttvís og elskar réttvísi. Þeir rádvøndu munu sjá hans auglit.

## 12. Sálmur.

Bæn mót varandi órádvendni. (1 Sam. 22. 23.)

1. Til hljódfærameistar: á áttstreingjada hørpu. Sálmur Davíds. 2. Hjálpa þú, Drottinn! því dánumennirnir fækka, þeir áreidanlegu eru fáir ordnir medal mannanna barna. 3. Lýgi tala þeir hvør vid annann, med smjadrandi vørum tala þeir af tvøføldu hjarta, 4. ó! ad Drottinn vildi afskéra alla smjadrandi varir og þá túngu sem talar dramblátlega; 5. þeirra sem segja: med vorri túngu skulum vér fá yfirhønd, vorar varir eru med oss, hvør er herra yfir oss? 6. Vegna þess ad hinir aumu eru undirþrykktir, af því ad hinir fátæku kveina, vil eg uppstanda, segir Drottinn, eg mun frelsa þá, sem áreittir eru. 7. Drottins ord eru einlæg ord, eins hrein og silfur í deiglunni sjø sinnum hreinsad. 8. Þú, ó Drottinn! munt vardveita þá, þú munt verja þá fyrir þessari kynslód eilíflega. 9. Ogudlegir vada uppi, þegar afhrøk hefjast medal mannanna barna.

## 13. Sálmur.

Bæn um hjálp gégn óvinum.

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur Davíds. 2. Hvørsu leingi, Drottinn! ætlar þú eilíflega ad gleyma mér? hvørsu leingi ætlar þú ad hylja fyrir mér þitt auglit? 3. Hvørsu leingi skal eg syrgja med sjálfum mér, og daglega hafa hrygd í mínu hjarta? Hvørsu leingi skal minn fjandmadur hælast um vid mig.

4. Líttu nidur, bænheyrdu mig, Drottinn, minn Gud! vardveittu ljós minna augna, ad eg ei sofni dauda dúr. 5. Ad minn fjandmadur hælist ekki um og segi: ad hann hafi unnid mig, svo mínir mótstødumenn fagni ei yfir því, ad eg sé fallinn. 6. Já! á þína miskun reidi eg mig, mitt hjarta gledst vid þitt frelsi. Eg skal lofsýngja Drottni, því hann hefir gjørt mér vel til.

## 14. Sálmur.

Umkvørtun ad menn séu vondir.

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur

Davíds. Dárinn segir í sínu hjarta: Þar er einginn Gud. Vond og vidurstyggileg er þeirra breitni. Þar er einginn sem gjørir gott. 2. Drottinn lítur af himni nidur yfir mannanna børn, ad hann sjái hvørt nokkur er hygginn, sem leiti Guds. 3. Allir eru þeir fallnir frá, allir spilltir ordnir, þar er einginn sem gjørir gott, ekki einn. 4. Munu þeir þá aldrei komast til vidurkénníngar, allir þeir sem rángt gjøra, þeir sem uppeta mitt fólk, eins og og þeir eta braud, og ákalla ekki Drottinn? 5. Já! mikil skélfíng mun yfir þá koma, því Gud er med kynslód hinna réttlátu. 6. Þér gjørid gis ad rádi hins adþreyngda, en Drottinn er hans athvarf. 7. Hvør mun frá Síon géfa Ísrael frelsi? Þegar Drottinn flytur til baka sitt hertekna fólk, þá mun Jakob fagna og Ísrael gledjast.

## 15. Sálmur.

Andkénni þeirra sem Drottinn adhyllast.

1. Sálmur Davíds. Drottinn hvør mun setjast ad í þinni tjaldbúd? hvør mun búa á þínu heilaga fjalli? 2. Sá sem framgeingur óstraffanlega, gjørir rétt og talar sannleikann af hjarta, 3. sá sem ekki bakmælir med sinni túngu, gjørir sínum náúnga ekkért íllt, og leggur ekki lastlegt til sínum félaga, 4. sá í hvørs augum nídíngurinn er fyrirlitlegur, en þeir heidurlegir sem óttast Drottinn, sá sem ekki vill breyta því, vid sinn náúnga, er hann hefir svarid sér til skada, 5. sá sem ekki okrar med sitt fé, og ekki tekur mútu gégn hinum saklausa; hvør sem þetta gjørir, mun ekki bifast ad eilífu.

## 16. Sálmur.

Um trúnadartraust.

1. Davíds gyllini klenodie a). Vardveit mig, Gud! því eg flý til þín. 2. Mín sál segir til Drottins: þú ert minn herra, eg hefi ekki gjædi nema þig, 3. til þeirra heiløgu sem eru í landinu, til þeirra dýrdlegu, snýst øll mín gyrnd. 4. Margar munu þeirra þjáníngar verda, sem annad leita, til afgudanna, eg vil ekki smakka þeirra blódugu drykkjaroffur og ekki taka mér þeirra nafn í munn. 5. Drottinn er mín arfleifd og hlutskipti, þú geymir mína hlutdeild. 6. Hlutur féll mér á yndislegum stad, já mín hlutdeild er mér dýrmæt. 7. Eg vil vegsama Drottinn sem annadist mig, jafnvel á náttarþeli minna mín nýru mig á þad, 8. ætíd hefi eg Drottinn mér fyrir augum, því hann er mér til hægri handar, eg skal ekki bifast. 9. Því gledst mitt hjarta, og minn andi fagnar, já, minn líkami hvílist óhult. 10. Þú munt ekki ofurgéfa sál mína til helju; þú munt ei láta þinn heilaga sjá rotnun. 11. Þú gjørir mér kunnan lífsins veg, gnótt fagnadar er fyrir þínu augliti, og sæla vid þína hægri hønd eilíflega.

## 17. Sálmur.

Bæn Davíds gégn vondskufullum mønnum.

1. Heyr, Drottinn! þad réttvísa málefni, géf þú gaum ad mínu kalli, hygg ad minni bæn, bæn af falslausum vørum. 2. Frá þér (þinni augsýn) komi minn dómur, þín augu skoda hreinskilnina b), 3. reyn mitt hjarta, vitja þess á náttarþeli, bræddu mig (eins og málm) þú munt eingann (sora) finna, mínar hugsanir og ord eru samhljóda. 4. Med tilliti til mannanna verka, hefi eg, fyrir ordid þíns munns, varast veg ofbeldis mannsins. 5. Haldtu minni gaungu vid þín spor, svo mér skridni ekki fótur. 6. Eg ákalla þig, Gud! því þú bænheyrir mig, hneig þitt eyra til mín og heyr mitt tal. 7. Audsýn þína miskunsemi dýrdlega, þú frelsar þá sem leita hælis hjá þér, af þeirra hendi sem rísa gégn þinni hægri hendi. 8. Vardveittu mig sem sjáaldur augans, fel mig undir skugga þinna vængja, 9. fyrir þeim ógudlegu, sem vilja tor-

V. 1. *a*. (uppáhald), adr: lesa rit. V. 2. *b*. Adr: þín augu sjá vel.

tína mér, fyrir óvinum míns lífs, sem med ædi umkríngja mig. 10. Tilfinníngalausir aptur-loka þeir sínum hjørtum, med munninum tala þeir drambsamlega. 11. Nú umkríngja þeir vorn veg, þeir stara á oss, svo þeir leggi oss ad velli. 12. Eins og ljón sem er sólgid í bráð, og ljónshvolpur sem liggur í leyni. 13. Stattu upp, Drottinn! vertu fyrri til, legg hann ad velli, frelsa mitt líf frá þeim ógudlegu med þínu sverdi, 14. frá mønnum, med þinni hendi, Drottinn! frá mønnum þessa heims. Þeirra hlutskipti er í þessu lífi; þú fyllir þeirra búk med þínum fjársjódum. Þeirra børn mettast, og þad sem þau leifa, þad fá barna børnin. 15. En eg mun sakir réttlætisins skoda þitt auglit, eg mun mettast, þá eg vakna, af því ad skoda (þína mynd) þig.

## 18. Sálmur.

Davíðs þakklæti fyrir frelsun frá hans óvinum. Sjá 2 Sam. 22. Kap.

1. **Til hljódfærameistarans. Sálmur Davíds, Drottins þénara, sem frambar fyrir Drottinn ord þessa lofkvædis, þegar Drottinn hafdi frelsad hann af hendi allra hans óvina, og af hendi Sáls.** 2. Og hann sagdi: Hjartkjærann hefi eg þig, Drottinn! minn styrkleiki. 3. Drottinn er mitt bjarg, mitt vígi, minn frelsari, minn Gud, minn kastali, í hvørn eg flý, minn skjøldur, og horn míns hjálpræðis, mitt hæli. 4. Þann vegsamlega Drottinn ákalladi eg, og frels-adist af hendi minna óvina. 5. Bilgjur daud-ans umkríngdu mig, lækir (Belíals) fordjørfun-arinnar skélfdu mig. 6. Helvítis bønd um-kríngdu mig, daudans snørur gripu mig. 7. Í minni ángist ákalladi eg Drottinn, já, eg kalladi til míns Guds, og hann heyrdi í sínum bústad mína raust, og mitt ákall kom fyrir hann, til hans eyrna; 8. og jørdin skalf og bifadist, og fjallanna grundvøllur nøtradi og hrærdist, því hann reiddist. 9. Reykur gékk út af hans nøsum, og fortærandi eldur af hans munni, eldíng logadi frá honum. 10. Hann sveigdi himininn og fór nidur, og myrkur var undir hans fótum. 11. Hann fór áfram á Kerúb-um og flaug, hann sveimadi á vindsins væng-jum. 12. Hann lét dimmuna vera sitt skilsni, allt í kríngum sig, eins og tjald, dimt vatn, þykkt ský. 13. Af glampanum fyrir honum færd-ust skýin áfram, og hagl og glóandi eldíng. 14. Og Drottinn þrumadi í himninum, og sá ædsti sendi út sína raust, þar var hagl og eldíng. 15. Hann sendi út sínar ørvar og tvístradi þeim, miklar eldíngar, og skélkadi þá. 16. Þá sáust hafsins uppsprettur, og jardar-innar grundvøllur opinberadist fyrir þinni hótan, Drottinn! og fyrir blástri þinna nasa (reidi). 17. Hann útrétti frá hædinni sína hønd, og greip mig og dróg mig upp úr þeim miklu vøtn-um. 18. Hann frelsadi mig frá mínum óvin-um, sá sterki, frá þeim sem mig høtudu, sem voru voldugri enn eg. 19. Þeir yfirféllu mig á minni mótgángs tíd, en Drottinn var mín stod. 20. Hann leiddi mig útá víðlendi. Hann frels-adi mig, því hann elskadi mig. 21. Drottinn umbunadi mér eptir minni réttvísi, hann endur-galdt mér eptir hreinku minna handa. 22. Því eg vardveitti Drottins vegu, og var ei ósvíf-inn vid minn Gud. 23. Því allir hans dóm-ar voru mér í minni og øll hans bodord, frá þeim vék eg ekki. 24. Heldur var eg óstraff-anlegur fyrir honum, og varadist syndir. 25. Og Drottinn endurgaldt mér eptir minni réttvísi, eptir hreinku minna handa fyrir honum. 26. Vid þá gódu ertu gódur, vid þá trúføstu ertu trúfastur, vid þá hreinu ertu hreinn, 27. og vid þá rángsnúnu ertu afundinn, 28. því þad

V. 16. Adrir: hafsins dælbir.

undirþrykkta fólk frelsar þú, og þá háleitu gjör- ir þú nidurlúta. 29. Já, þú létst mína skrid- bittu lýsa, Drottinn minn Gud gjørdi mitt myrk- ur ad byrtu, 30. fyrir þitt fulltíngi brautst eg í gégnum herinn, og fyrir hjálp míns Guds støkk eg yfir múrana. 31. Guds vegur er prettalaus, ord Drottins eru hrein, hann er skjøldur allra þeirra sem reida sig á hann. 32. Því hvør er Gud nema Drottinn? og hvør er vígi nema vor Gud? 33. Sá Gud sem umgirdti mig krapti, og gjørdi minn veg greidann, 34. hann gjørdi mína fætur sem hjartarins, og lét mig standa fast á mínum hædum. 35. Hann kénndi mínum høndum ad berjast, svo nú spenna mínir armar eirbog- ann. 36. Þú gafst mér þinn frelsis skjøld, þín hægri hønd studdi mig, og þín nád mikl- adi mig. 37. Þú gjørdir minn gáng rúm- ann, og mínir øklar veikludust ekki. 38. Eg elti mína óvini og nádi þeim og snéri ekki til baka fyrr enn eg hafdi afmád þá, 39. eg mardi þá svo þeir gjætu ei stadid upp, þeir féllu undir mína fætur. 40. Þú girdtir mig krapti til strídsins, þú nidurbeigdir undir mig mína mótstødumenn. 41. Þú gafst mér mína ó- vini ad eg ræki þá á flótta, og mína haturs- menn, ad eg afmádi þá. 42. Þeir kølludu, en þar var einginn sem hjálpadi, til Drottins, en hann ansadi þeim ekki. 43. Eg moladi þá sem moldarrik fyrir vedri, eg tród þá undir fætur mér sem skarn á strætum. 44. Þú frelsadir mig úr bardaga lýdsins, þú settir mig høfdíngja þjódanna. Menn, sem ekki þekktu mig, þeir þjóna mér. 45. Undir eins og þeirra eyru heyra mig (nefndann), hlýda þeir mér; børn hinna útlendu slá mér gullhamra. 46. Børn hinna útlendu visna sem laufblød, skélkud flýa þau úr sínum borgum. 47. Drottinn lifi! vegsamad sé mitt bjarg, Gud míns hjálprædis sé hátt lofadur! 48. Sá Gud sem gaf mér hefnd og lagdi undir mig þjódirnar. 49. Sá sem frelsadi mig frá mínum óvinum, sem hóf mig upp yfir mína mótstødumenn, sem bjargadi mér frá ofbeldis manninum. 50. Þar fyrir vil eg vegsama þig, Drottinn! medal þjódanna, og sýngja lof þínu nafni. 51. Þú sem audsýnir þínum Konúngi miklar velgjørdir, og miskunar þínum Smurda, Davíd, og hans nidjum eilíflega.

## 19. Sálmur.

*Lofgjord Guds dásemda í náttúrunni, og hans lög- máls.*

1. Til hljódfæræmeistarans. Sálmur Davíds. 2. Himnarnir segja frá Guds dýrd, og festíngin kunngjørir verkin hans handa. 3. Einn dagurinn kénnir ødrum þetta tal og ein nóttin kunngjørir annari þessa auglýsíngu. 4. Ekkért tal og ekkért ord, ad menn ekki skilji þeirra raust. 5. Yfir alla jørdina er þeirra hljómur útgeng- inn, og þeirra tal til jardríkisins enda, þar sem hann á himninum reisti sólinni tjald, 6. og þessi framgeingur sem brúdgumi úr sínu brúd- ar herbergi, hún gledur sig vid þad sem hetja, ad hlaupa sína leid. 7. Hennar uppgánga er vid himinsins annann enda, og rás hennar varir til hins endans, og ekkért felst fyrir hennar heita geisla. 8. Drottins løg eru full- komin, og endurnæra sálina; Drottins vitnis- burdur er áreidanlegur, hann gjørir þann fá- vísa hygginn. 9. Drottins bodord eru rétt, þau gledja hjartad. Drottins skipun er ljós, hún upplýsir augun. 10. Drottins dýrkun er hrein, hún varir eilíflega. Drottins dómar eru sannleiki, þeir eru allirsaman réttvísir, 11. þeir eru dírmætari enn gull, já, heldur enn þad skírasta gull, og sætari enn hunáng og hunángs- seimur. 12. Þeir bendtu þínum þénara, sá sem þá vardveitir hann, hefur mikil laun. 13. En hvør veit hvad opt honum yfirsjest? frá mín-

um heimuglegu breftum hreinsa þú mig! 14. Varðveittu og þinn þjón frá drambsemi, ad hún ekki drottni yfir mér, þá verd eg saklaus og frí frá stórum yfirtrodslum. 15. Lát þér þókknast ordrædur míns munns, og málid míns hjarta, Drottinn, mitt bjarg og minn Endurlausnari!

## 20. Sálmur.

Bænir þjódarinnar. Þakklæti fyrir sigur.

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur Davids. 2. Drottinn bænheyri þig á neydarinnar degi! nafnid Jakobs Guds verndi þig. 3. Hann sendi þér hjálp úr helgidóminum, og styrk frá Síon. 4. Muni hann til alls þíns matoffurs, og finni þínar brennifórnir feitar, (málhvíld). 5. Hann veiti þér vild þíns hjarta, og láti þig koma fram öllum þínum ásetníngi. 6. Vér skulum fagna yfir þínu frelsi, og setja upp sigurmerki í nafni vors Guds; þá Drottinn uppfyllir allar þínar óskir. 7. Nú veit eg ad Drottinn frelsar sinn smurda, bænheyrir hann frá sínum heilaga himni. Hans hægri hønd frelsar med miklum krapti. 8. Þessir (óvinirnir) hrósa sér af vøgnum og hestum, en vér af nafni Drottins vors Guds. 9. Þeir fá hnésig og falla, en vér støndum, já, støndum upprèttir. 10. O Drottinn! frelsa þú Kónginn. Já, hann bænheyrir oss, þegar vér ákøllum hann.

## 21. Sálmur.

Bæn fyrir Konúnginum.

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur Davids. Guds smurdi gledst af þeirri honum veittu tign. Hans dýrd og sigri er lýst. 2. Drottinn! þín vernd gledur Kónginn! ó hvørsu mjøg fagnar hann af þínu lidsinni! 3. Þú hefir veitt honum girnd hans hjarta, og ekki synjad honum um bæn hans vara, (málhvíld). 4. Þú varst fyrri til ad veita honum blessan og heppni, þú settir gullkórónu á hans høfud. 5. Hann bad þig um líf, þú gafst honum þad, lángt líf, ævarandi og eilíft; 6. fyrir þitt frelsi er hans sæmd mikil, þú íklædir hann hátign og heidri. 7. Því þú hefir sett hann til eilífrar blessunar, þú gladdir hann med føgnudi fyrir þínu augliti. 8. Því Konúngurinn reidir sig á Drottinn, og fyrir miskun hins ædsta, bifast hann aldrei.

9. Þín hønd mun finna alla þína óvini, þín hægri hønd mun finna þá sem þig hata. 10. Þú gjørir þá sem glóandi ofn á tíma þinnar reidi. Drottinn afmáir þá í sinni grimd, og eldurinn eydir þeim. 11. Þú munt afmá þeirra ávøxt af jørdunni, og þeirra nidja medal mannanna barna. 12. Því þeir hugsudu ad gjøra þér íllt, þeir bruggudu rád, en þeir gátu ei komid því í verk. 13. Því þú munt reka þá á flótta. Þú midar ørinni af þínum bogastreing á þeirra andlit. 14. Drottinn, upplyptu þér í þínum krapti! Þá munum vér sýngja og vegsama þín hreistiverk.

## 22. Sálmur.

Bæn og von þess þjáda.

1. Til hljódfærameistarans med lagi: Morgunrodans hind. Sálmur Davids. 2. Gud minn! Gud minn! hvar fyrir hefir þú yfirgéfid mig? eg kveina, en mín hjálp er fjærlæg. 3. Minn Gud! á daginn kalla eg, og þú ansar ekki, á nóttunni, og eg fæ einga ró. 4. Og þó ertu sá heilagi, sem býr medal Israels lofsaunga. 5. Þér treystu fedur vorir; þeir reiddu sig á þig, og þú frelsadir þá. 6. Þeir kølludu til þín og sluppu, þeir reiddu sig á þig, og urdu ei til skammar. 7. En eg em madkur, og ekki madur, spott mannanna og fyrirlitning fólksins. 8. Allir sem sjá mig, hæda mig, skjæla munninn og hrista

høfudid, (og segja): 9. „Feli hann Drottni sitt málefni, hjálpi hann honum, bjargi hann honum, fyrst hann hefir mætur á honum". 10. Já, þú útleiddir mig af módur lífi, þú létst mig liggja áhyggjulausann vid minnar módur brjóst. 11. Til þín var mér kastad frá módur kvidi. Þú ert minn Gud frá módur lífi. 12. Vertu ekki fjærri mér, því þreingíngin er nærri, því þar er einginn hjálpari. 13. Mig umkríngja stór naut, Basans voldugu hnappast ad mér. 14. Þeir spenna upp ginid móti mér, eins og ljón sem grenjar eptir brád. 15. Eg flýt sem vatn, og øll mín bein eru sundurlaus ordin, mitt hjarta er sem vax og brádnar innst í mér. 16. Þornadur er minn kraptur sem pott hrím, og mín túnga lodir vid minn góm, og þú leggur mig í daudans dupt. 17. Því hundar umkríngja mig, og hópur hinna vondu setst um mig, þeir gagnbora mínar hendur og mínar fætur. 18. Eg gét talid øll mín bein, þeir sjá þad, og horfa á þad med unadsemd. 19. Þeir skipta med sér mínum klædum, og kasta hlutkésti um mitt fat. 20. En þú, ó Drottinn! vertu ekki fjærlægur, minn styrkleiki! flýttu þér ad hjálpa mér. 21. Frelsa mína sál frá sverdinu og mitt líf frá hundanna ofbeldi. 22. Frelsadu mig úr ljónsins gini, og bjargadu mér undan horni villinautsins. 23. Eg vil þá kunngjøra þitt nafn fyrir mínum brædrum; midt á samkomunni (í samkundunni) vil eg vegsama þig. 24. Þér sem óttist Drottinn, vegsamid hann, allir Jakobs nidjar heidri hann, og skjálfi fyrir honum allt Israels sædi. 25. Því hann hefir ekki forsmád og ekki gjørt gis ad neyd hins auma og fól ekki sitt andlit fyrir honum, heldur heyrdi hann, þá hann kalladi til hans. 26. Um þig vil eg sýngja lof í miklum søfnudi, mitt heit vil eg gjalda í augsýn þeirra sem hann óttast. 27. Þeir voludu skulu neyta og mettast. Þeir skulu lofa Drottinn sem hans leita. Ydar hjørtu skulu vid lifna ad eilífu. 28. Allar heimsins endimerkur skulu muna þad, ad snúa sér til Drottins, og allar þjódanna kynkvíslir skulu tilbidja fyrir þinni augsýn. 29. Því Drottni tilheyrir ríkid, hann drottnar yfir þjódunum. 30. Allir þeir ríku jardarinnar skulu eta og tilbidja, honum skulu lúta allir þeir sem í duptinu liggja, og sá sem ei gétur lifad. 31. Eptirkomendurnir skulu honum þjóna, nidjunum skal verda sagt frá Drottni; 32. Þeir koma og kunngjøra hans réttvísi þeim mønnum sem fædast munu; ad hann hafi dýrdlega adfarid.

## 23. Sálmur.

Traust á Drottins vernd og handleidslu.

1. Sálmur Davíds. Drottinn er minn hyrdir, mig skal ekkért bresta. 2. Í grænu haglendi lætur hann mig hvílast, ad hægt rennandi vatni leidir hann mig. 3. Hann hressir mína sál, hann leidir mig á réttann veg fyrir síns nafns sakir. 4. Þó eg ætti ad gánga um daudans skugga dal, skyldi eg samt einga ólukku hrædast, því þú ert med mér, þín hrísla og stafur hugga mig. 5. Þú tilreidir mér matbord fyrir minna óvina augsýn, þú smyrd mitt høfud med vidsmjøri, útaf mínum bikar rennur. 6. Sannarlega fylgja mér þín gódgirni og miskun alla daga míns lífs, og æfinlega mun eg búa í Drottins húsi.

## 24. Sálmur.

Lofsaungur þá ørkin var sókt.

1. Sálmur Davíds. Jørdin er Drottins, og hennar fylling. Jardríkid og þeir sem á því búa. 2. Því hann grundvalladi hana á høfunum, og festi hana á vøtnunum. 3.

V. 13. Stór naut: voldugir óvinir. V. 1. Fylling: þad sem jørdina fyllir.

Hvør þorir ad stíga uppí Drottins borg? hvør vogar ad gánga fram á hans heilaga stad? 4. Sá sem hefir saklausar hendur, og hreint hjarta. Sá sem ekki leggur hans nafn vid lygar, (hégóma) og ekki sver rángann eyd. 5. Sá hinn sami mun medtaka blessan af Drottni, og miskun frá Gudi síns hjálprædis. 6. Þetta er kynslód þeirra sem ad honum spyrja; Jakobs børn sem leita þíns andlitis, (Málhvíld). 7. Þid port! lyptid upp ydar efra parti, opnid ydur, þid eilífu dyr, ad dýrdarinnar Konúngur géti komist inn. 8. Hvør er sá dýrdarinnar Konúngur? Drottinn, sá sterki og máttugi, Drottinn, voldugur í strídi.

9. Þid port, upplyptid ydar efra hluta! já opnist þid eilífu dyr, ad dýrdarinnar Konúngur géti komist inn. 10. Hvør er sá dýrdarinnar Konúngur? Drottinn, herskaranna Gud, hann er dýrdarinnar Konúngur. (Málhvíld).

## 25. Sálmur.

Bæn um hjálp, uppfrædíngu og syndafyrirgéfníng.

1. Sálmur Davíds. Til þín, Drottinn! upplypti eg minni sálu. 2. Minn Gud! á þig reidi eg mig, lát mig ei verda til skammar, svo mínir óvinir hlakki ekki yfir mér! 3. Vissulega verdur einginn sá til skammar sem á þig vonar; en þeir munu til skammar verda sem ófyrirsynju falla frá þér. 4. Drottinn! lát mig þekkja þína vegu, kénn mér þínar gøtur; 5. lát mig gánga í þínum sannleika og uppfræd mig, því þú ert Gud míns hjálprædis, eg vona á þig alla daga. 6. Mundu til þinnar miskunar og gódgirni, Drottinn! sem verid hefir frá eilífd. 7. Mundu ekki til minna úngdóms synda og afbrota; heldur mundu til mín eptir þinni miskunsemi, fyrir sakir þinnar gódgirni, Drottinn! 8. Gódur og réttvís er Drottinn, því vísar hann syndurum á veginn. 9. Hann lætur þá hógværu gánga í sínum rétti, og kénnir þeim audmjúku sinn veg. 10. Allir Drottins vegir eru miskun og trúfesti fyrir þá, er geyma hans sáttmála og løgmál. 11. Fyrir þíns nafns sakir, Drottinn! fyrirgéf mér synd mína sem er stór. 12. Hvørjum manni sem óttast Drottinn, mun hann vísa þann veg sem hann skal kjósa. 13. Hans sála býr í farsæld, og hans nidjar eignast landid. 14. Drottins aldavinir (uppáhøld) eru þeir sem hann óttast, og hans sáttmáli er þeirra uppfrædíng. 15. Mín augu horfa ætíd til Drottins, því hann mun greida mína fætur úr netinu. 16. Snú þínu augliti til mín, og vertu mér nádugur, því eg em einmana (yfirgéfinn) og aumur. 17. Léttu á þreyngslum míns hjarta, leiddu mig úr mínum naudum, 18. líttu á mína eymd og armædu og fyrirgéf mér allar mínar syndir, 19. líttu til minna óvina, því þeir eru margir, og þeir hata mig ofbeldisfullu hatri; 20. vardveittu mína sál, og bjarga mér, svo eg verdi ekki til skammar, því eg reidi mig á þig. 21. Láttu rádvendni og hreinskilni vernda mig, því eg vona á þig, 22. frelsa, ó Gud! Israel af allri sinni neyd.

## 26. Sálmur.

Um góda samvitsku.

1. Sálmur Davíds. Dæm þú mig, Drottinn! því eg em saklaus, og eg treysti Drottni óbifanlega. 2. Prófa mig, Drottinn! og reyn mig! (hreinsa) mín nýru og mitt hjarta, 3. því þín miskun er fyrir mínum augum og eg geing í þínum sannleika. 4. Eg sit ekki hjá óheilum mønnum og til flárádra kém eg ekki. 5. Eg hata samkomur hinna vondu, og sit ekki hjá þeim ógudlegu. 6. Eg þvæ mínar hendur í sakleysinu, og held mig til þíns altaris, Drottinn! 7. til ad taka undir lofsaunginn, og til ad segja frá øllum þínum dásemdum. 8. Drottinn! eg elska þíns húss bústad, og þinnar dýrdar adseturs stad. 9. Taktu ekki mína sál burtu

með syndurum, né mitt líf með þeim blóðgírugu. 10. Í hvørra høndum að er misgjørð, og hvørra hægri hendur eru fullar af mútum; 11. En eg geing í ráðvendninni; frelsa mig og vert mér náðugur. 12. Minn fótur geingur á réttri gøtu. Í søfnuðinum vil eg lofa Drottinn.

## 27. Sálmur.

Traust, laungun og bæn.

1. Sálmur Davíðs. Drottinn er mitt ljós og mitt frelsi, hvørn skal eg hræðast? Drottinn, hann er vørn míns lífs, fyrir hvørju skal eg skélfast? 2. Þegar illvirkjarnir koma á móti mér til að afmá mig, þegar mínir mótstøðumenn og óvinir heitast við mig, þá reka þeir sig á og falla. 3. Þóað her setji herbúðir móti mér, bløskrar mínu hjarta ekki, þó stríð æsist móti mér, er eg samt rólegur. 4. Eins beiðist eg af Drottni, þar eptir sækist eg, að eg megi búa í húsi Drottins alla daga míns lífs, að horfa á Drottins viðhøfn, og vyrða fyrir mér hans musteri. 5. Því hann geimir mig í sínu húsi á þeim vonda degi, hann felur mig í sínni tjaldbúð, og hefur mig uppá bjarg. 6. Já, nú þegar lyptist mitt høfuð upp yfir mína óvini allt í kríngum mig, og eg offra með fagnaðar hljóm fórn í hans tjaldbúð, eg vil sýngja lof og vegsama Drottinn. 7. Drottinn! heyr mína raust, nær eg kalla, miskuna þú mér og bænheyr mig. 8. Mitt hjarta hugsar til þín, sem sagt hefir: „leitið míns andlitis". Drottinn! eg leita þíns andlitis; 9. fel ekki þitt andlit fyrir mér! vísaðu ekki burt þínum þénara í reiði! þú ert mín aðstoð, sleptu ekki af mér hendinni! yfirgéfðu mig ekki, Guð míns hjálpræðis! 10. Því faðir minn og móðir mín yfirgáfu mig, en Drottinn mun annast mig. 11. Drottinn! kénn mér þinn veg, og leið mig á rétta gøtu, sakir minna óvina; 12. ofurgéf mig ekki á vald minna fjandmanna, því móti mér gánga fram falsvottar, og þeir sem blása af heipt. 13. (Illa væri eg farinn), ef eg ekki vonaði að eg sæi Guðs blessun á landi enna lifandi.

14. Bíð þú Drottins, vertu øruggur, og hann mun styrkja þitt hjarta. Vona þú á Drottinn!

## 28. Sálmur.

Bæn um hjálp, og að straff komi yfir ógudlega.

1. Sálmur Davíðs. Drottinn mitt bjarg! til þín kalla eg, þeg þú ekki við mér, svo eg ekki verði, ef þú þegir, líkur þeim sem niður fara í grøfina; 2. Heyr þú mína grátbeiðni, þegar eg ákalla þig, þegar eg upplypti mínum høndum til þíns heilaga Kórs! 3. Drag mig ekki burt með þeim ógudlegu, með þeim illvirkjum sem tala friðsamlega við sínn náúnga, en hafa íllt í sínni. 4. Gjør við þá eptir þeirra tilverknaði og eptir vondsku þeirra íþróttar, gjald þeim eptir verki þeirra handa, betala þeim eins og þeir hafa tilunnið. 5. Því þeir vilja ei géfa gaum Drottins verkum, verkunum hans handa, því mun hann niðurrífa þá, og uppbyggja ei aptur. 6. Lofaður veri Drottinn, því hann heyrir mína innilega grátbeiðni. 7. Drottinn er minn styrkleiki og skjøldur, mitt hjarta reiðir sig á hann, og eg em hólpinn, og mitt hjarta gleðst, og með mínum saung vil eg vegsama hann. 8. Drottinn er styrkleikur síns lýðs, og hjálpræði og vørn síns smurða. 9. Frelsa þitt fólk, blessa þína arfleifð, géf því fæðslu, og annastu það eilíflega.

## 29. Sálmur.

Lofgjørðar Sálmur.

1. Sálmur Davíðs. Géfið Drottni, þér børn hinna voldugu, géfið Drottni lofgjørð og heiður. 2. Géfið Drottni dýrðina hans nafns! tilbiðjið Drottinn í heiløgu skarti! 3. Drottins raust fer yfir vøtnin. Dýrðarinnar Guð

þrumar. Drottinn er yfir þeim miklu vötnum. 4. Drottins raust er kröptug. Drottins raust er dýrdleg. 5. Drottins raust sundurbrýtur Sedrusvidinn, já, Drottinn hefir sundurbrotid Sedrusvidinn á Libanon (fjalli). 6. Hann lætur hann stökkva upp sem kálfa, Libanon og Sirion einsog úng ótamin naut. 7. Drottins raust útsendir eldsloga, 8. Drottins raust lætur eydimörkina bifast, Kadess eydimörk skjálfa. 9. Drottins raust kémur hindunum til ad fæda, og afklædir skógana, en í hans musteri segir allt: (honum sé) dýrd! 10. Drottinn situr uppyfir vötnunum, Drottinn situr sem Konúngur ad eilífu. 11. Drottinn verndar sitt fólk, Drottinn mun blessa sitt fólk med fridi.

## 30. Sálmur.

Lofgjörd og þakklæti.

1. Sálmur Davids eptir saungnum vid húsvígsluna. 2. Eg upphef þig, Drottinn! því þú hefir upphafid mig, og þú létst ekki mína óvini fagna yfir mér. 3. Drottinn, minn Gud! eg kalladi til þín og þú læknadir mig. 4. Drottinn! þú dróst mína sál úr helju; þú létst mig lifa og ekki nidurstíga í gröfina. 5. Lofid Drottinn! þér hans útvöldu, og vegsamid hans heilaga nafn, 6. því hans reidi varir eitt augnablik, en hans nád heilann mannsaldur; um kvöldtímann heimsækir oss grátur, en ad morgni gledisaungur. 7. Eg sagdi þegar mér gékk vel: eg skal ekki bifast ad eilífu; 8. Drottinn! af þinni velþóknan hafdir þú gjört mitt bjarg stödugt og fast fyrir, en þegar þú byrgdir þitt andlit, skélfdist eg. 9. Eg kalladi til þín, Drottinn. Já, eg grátbændi þig, Drottinn. 10. Hvör ábati er ad minu blódi, þegar eg er kominn í gröfina? gétur duftid prísad, kunngjört þína trúfesti? 11. Heyr mig ó Drottinn, og vertu mér nádugur! Drottinn vertu mín hjálp. 12. Þá umbreyttir þú minu kveini í gledidans, þá færdir þú mig úr sorgarbúníngnum og girdtir mig med fögnudi, 13. svo ad minn sómi (sál) skyldi sýngja þér lof og ekki þegja. O Drottinn, minn Gud! eilíflega vil eg þakka þér.

## 31. Sálmur.

Bæn um frelsi.

1. Til hljódfærameistarans. Ljódmæli Davids. 2. A þig, Drottinn! reidi eg mig, láttu mig ekki eilíflega verda til skammar, frelsa þú mig eptir þínu réttlæti. 3. Hneig þitt eyra til mín, bjarga mér skjótt, vertu mér örugt vígi, bjarg mér til frelsunar. 4. Já, þú ert mitt bjarg og vígi, og fyrir þíns nafns sakir munt þú leida mig og stýra mér, 5. útleida mig úr netinu sem þeir hafa lagt fyrir mig, því þú ert mín vörn. 6. Í þína hönd fel eg minn anda, þú munt frelsa mig, Drottinn! þú trúfasti Gud. 7. Eg hata þá sem heidra hégómann (afgudina), og reidi mig á Drottinn. 8. Eg mun fagna og vera gladur af þinni miskun, því þú hefir sjed mína eymd og tekid eptir þreyngíng minnar sálar. 9. Þú afhendtir mig ekki á vald minna óvina, þú settir minn fót á rúmgódann völl. 10. Drottinn! vertu mér miskunsamur, því eg em í ángist, mitt auga daprast af sorg, einsog mín sál og minn líkami bregst upp. 11. Já, mitt líf eydist í hrygd, og mín ár í andvörpum, minn kraptur rénar í mínum þjáníngum og mín bein sundurleysast. 12. Sökum allra minna óvina er eg ordinn ad athlæi, ad athlæi fyrir mínum nágrönnum; ad ótta fyrir mínum kunníngjum. Þeir sem sjá mig úti, flýa fyrir mér. 13. Eins og daudum er mér gleymt úr hjörtum manna, eg em einsog sundurbrotid kér. 14. Því eg heyri baktal margra, skélfíng allt í kríngum mig, því þeir taka rád sín saman móti mér; þeir hugsa ad ráda mig af dögum. 15.

En eg reidi mig á þig, Drottinn! og segi: þú ert minn Gud. 16. Mínir tímar standa í þinni hendi, frelsa mig frá ofbeldi minna óvina, og frá þeim sem mig ofsækja. 17. Láttu þitt andlit lýsa yfir þinn þénara, frelsa mig fyrir þína miskunsemi. 18. Drottinn! láttu mig ekki til skammar verda, því eg ákalla þig. Lát þá ógudlegu verda til skammar; lát þá í grøfinni liggja í þøgn. 19. Lát þær flárádu varir þagna, sem tala hart móti þeim réttvísu, drambsamlega og med forakti. 20. Hvørsu stór eru þau gjædi, sem þú geymir þeim er þig óttast og veitir þeim sem treysta þér í augsýn mannanna barna. 21. Þú felur þá med skýlu þíns andlitis fyrir manna óvinsamlegri árás, þú geymir þá í tjaldbúd fyrir túngnanna gjálfri. 22. Lofadur veri Drottinn fyrir þad hann hefir audsýnt mér dásamlega gódgyrni, og leidt mig í ørugt vígi. 23. Eg sagdi í minni ángist: eg em afmádur fyrir þínum augum, en þú heyrdir mína grátbeidni, þegar eg kalladi til þín. 24. Elskid Drottinn, allir hans útvaldir. Þá trúføstu vardveitir Drottinn, og géldur þeim drambsømu ríkuglega. 25. Verid øruggir og med rólegu hjarta, þér allir sem Drottins bídid.

## 32. Sálmur.

Um syndafyrirgéfníngu.

1. **Davids diktur.** Sælir eru þeir hvørra yfirtrodslur eru fyrirgéfnar, hvørra syndir eru huldar. 2. Sæll er sá madur, hvørjum Drottinn tilreiknar ekki syndina, og sá í hvørs anda ekki er flærd. 3. Medan eg þagdi, tærdust mín bein af minni andvarpan allan daginn. 4. Því dag og nótt lá þín hønd þúngt á mér, svo ad mínir lífs vessar þornudu, einsog í sumarþurki, (málhvíld). 5. Eg medkénndi fyrir þér mína synd, og fól ekki minn misgjørníng, eg sagdi: eg skal játa Drottni mínar yfirtrodslur og þá gafstu mér upp mína syndasekt (málhvíld). 6. Þessvegna bidji þig allir gudhræddir, medan þig er ad finna; í mikilli vatnshríd, munu þeir ekki til hans ná.

7. Þú ert mitt hæli, þú vardveitir mig fyrir ángistinni, med frelsis føgnudi umkríngir þú mig. Málhvíld. 8. Eg vil uppfræda þig, og kénna þér hvørn veg þú skalt gánga; eg vil vísa þér leid, hafa auga á þér. 9. Verid ekki sem hestar og múlar sem ekki hafa vit, sem þú verdur ad þvínga med taum og beitsli, því annars koma þeir ekki nærri þér. 10. Sá ógudlegi hefir margar plágur, en þann sem vonar á Drottinn, mun miskunsemi umkríngja. 11. Gledjid ydur og fagnid, þér réttlátir, og sýngid med gledi allir þér, sem erud hreinskilnir af hjarta.

## 33. Sálmur.

Drottinn heimsins og Israels Gud.

1. Verid gladir, þér réttlátu í Drottni, þeim hreinskilnu sæmir ad sýngja lofsaung. 2. Vegsamid Drottinn med hørpum, og spilid fyrir honum á tíu streingja hljódfæri, 3. sýngid honum nýann ód, sláid á streingina med fagnadar hljóm. 4. Því satt er Drottins ord, og allt hans verk trúfast. 5. Hann elskar réttinn og réttvísi, jørdin, hún er full af hans nád. 6. Himininn er fyrir ord Drottins gjørdur, og fyrir anda hans munns allur himinsins her. 7. Hann heldur saman vatninu í sjónum eins og hrúgu, og geymir øldurnar í fordabúri. 8. Øll jørdin óttist Drottinn, allir heimsins innbúar hrædist hann, 9. því hann taladi og þad skédi, hann baud svo stód þad þar. 10. Drottinn ónýtir rádagjørdir þjódanna, hann trublar hugsanir lýdsins. 11. Drottins rád stendur stødugt eilíflega, hans hjartans hugsanir frá kyni til kyns. 12. Sæl er sú þjód, hvørrar Gud Drottinn er, þad fólk sem hann hefir útvalid sér til arfleifdar. 13. Drottinn lítur nidur frá himni, og

hann sjer øll mannanna børn, 14. frá sæti síns
bústadar lítur hann nidur til allra sem á jørd-
unni búa. 15. Hann er sá sem lagar allra
þeirra hjørtu, hann gáir ad allra þeirra verkum.
16. Konúnginn stodar ekki maktarinnar stærd,
og hetjuna frelsar ekki kraptanna mikilleiki. 17.
Brugdist gétur ad hesturinn bjargi, hann gétur
ekki hjálpad med sínum miklu krøptum. 18.
Sjá þú! augu Drottins líta til þeirra sem hann
óttast, til þeirra sem vona til hans miskunar,
19. ad hann frelsi þeirra sálir frá daudanum,
og vidhaldi þeirra lífi í hallærinu? 20. Sála
vor bídur Drottins, hann er vor hjálp og skjøld-
ur. 21. Já, í honum gledjast vor hjørtu, því
vér reidum oss á hans heilaga nafn. 22. Þín
miskun sé yfir oss, Drottinn! eptir því sem vér
vonum á þig.

## 34. Sálmur.

Gud hjálpar rádvøndum.

1. Sálmur Davíds þá hann létst vera
vitfyrríngur hjá Abimelek! og þessi rak
hann burt, svo hann fór þadan. 2. Alla
tíma vil eg vegsama Drottinn, hans lofgjørd
skal sífeldt vera í mínum munni. 3. Mín sála
skal hrósa sér í Drottni, þeir hógværu skulu heyra
þad og gledja sig. 4. Vegsamid Drottinn
med mér innilega, og látum oss sameginlega
vídfrægja hans nafn. 5. Eg leitadi Drottins
og hann bænheyrdi mig, og frelsadi mig af
allri minni hrædslu. 6. Þeir mæna til hans
og verda gladir, og þeirra ásýnd sneypist ekki.
7. Þessi ólukkulegi kalladi, og Drottinn heyrdi,
og frelsadi hann frá allri hans ángist. 8.
Drottins Einglar setja herbúdir kríngum þá
sem hann óttast og vernda þá. 9. Takid ept-
ir og sjáid hvad Drottinn er gódur, sæll er sá
madur sem reidir sig á hann. 10. Óttist Drott-
inn, þér hans heiløgu, því þeir sem hann óttast,
líða eingann skort. 11. Þau úngu ljón líða
skort og húngur, en þá skal ei gott vanta sem
leita Drottins. 12. Komid mín børn! heyrid
mig! ótta Drottins vil eg kénna ydur. 13.
Hvør er sá madur sem hefir lyst til lífsins?
sem óskar sér margra daga til ad sjá hid góda?
14. Vardveit þú þína túngu frá hinu illa, og
þínar varir ad þær ekki tali flærd. 15. Vík
frá hinu illa, og gjørdu gott, leita þú fridarins
og eltu hann. 16. Drottins augu snúa sér ad
þeim réttlátu, og hans eyru ad þeirra kalli.
17. En Drottins andlit er þeim á móti sem
íllt adhafast, svo hann afmái þeirra minníngu
af jørdunni. 18. Þeir (réttlátu) hrópa, og
Drottinn heyrir, og hann frelsar þá af allri
þeirra ángist. 19. Drottinn er þeim nálægur
sem hafa sundurknosad hjarta, og frelsar þá
sem hafa nidurbeigdann anda. 20. Sá rétt-
láti ratar í margar raunir, en Drottinn frelsar
hann úr þeim øllum. 21. Hann vardveitir
øll hans bein, svo ad ekkért af þeim brotni.
22. Slisin drepa þann ógudlega, og þeir sem
hata hinn réttláta, skulu dóm þola. 23.
Drottinn frelsar sálir sinna þénara; allir sem
reida sig á hann, skulu ekki dóm þola.

## 35. Sálmur.

Bæn gégn óvinum.

1. Sálmur Davíds. Drottinn! gakk
þú í rétt vid þá sem gánga í rétt vid mig —
berstu vid þá sem berjast vid mig. 2. Taktu
skjøld og buklara og stattu upp ad hjálpa mér.
3. Taktu fram spjótid, og settu þad móti þeirra
árás sem ofsækja mig. Segdu vid mína sál:
eg er þín hjálp. 4. Sneipist þeir og verdi
fyrir hádúng sem sitja um mitt líf! lát þá
hørfa til baka og til skammar verda sem vilja
mér íllt. 5. Lát þá verda sem fis fyrir
vindi, og Drottins Eingill hrindi þeim burt.
6. Þeirra vegur sé dimmur og mjøg háll, og
Drottins Eingill elti þá. 7. Því án saka

løgdu þeir leynilega sitt net fyrir mig í gryfju,
án orsaka grófu þeir grøf gégn mínu lífi. 8.
Lát eydileggíngu yfir þá koma, fyrr enn þeir
af vita, lát þau net sem þeir leynilega løgdu,
veida þá sjálfa, flækist þeir í þeim sér til tjóns.
9. En mín sál skal gledja sig í Drottni, hún
skal fagna vid hans frelsi. 10. Øll mín bein a)
segja: Drottinn! hvør er sem þú, þú sem frels-
ar þann ólukkulega frá þeim sem ber hann
ofurlida, já, þann fáráda og snauda frá
þeim sem rænir hann.

11. Ofbeldis vitni uppstanda, þeir spyrja mig
um þad sem eg ekki veit, 12. þeir launa mér gott
med íllu, þeir gjøra mig munadarlausann. 13.
En eg, þegar þeir voru sjúkir, eg íklæddi
mig sorgarbúníngi, og þjádi mig med føstu,
eg bad med nidurlútu høfdi. 14. Eg hagadi
mér sem væru þeir mínir brædur og vinir,
eg gékk í sorgarbúníngi og var nidurlútur eins
og sá sem syrgir sína módur. 15. En þeir
fagna yfir minni helti og samansafnast, þeir
samansafnast og gánga haltir eptir mér án
þess eg vissi þad, þeir sundurtæta mig og
láta ekki af. 16. Medal ósvífnustu manna,
sem hæda fyrir køku, nýsta þeir tønnum yf-
ir mér.

17. Drottinn! hvørsu leingi viltu horfa á
þetta, flyttu mína sálu frá þeirra eydilegg-
íngu, mig yfirgéfinn frá þeim úngu ljónum.
18. Eg skal þakka þér á mikilli samkomu, og
lofa þig í miklum fólksfjølda. 19. Láttu þá
ekki hlakka yfir mér sem eru án saka mínir
óvinir, sem hata mig fyrir einga søk og depla
augunum. (Kíma ad mér). 20. Því þeir tala
ekki frid, en á móti þeim kirrlátu í landinu
upphugsa þeir svik. 21. Þeir sperra upp
ginid á móti mér og segja: hæ! hæ! þar sjá-
um vér þad med vorum augum. 22. Þú
sér þad, Drottinn! þegi þú ekki minn Gud!
23. Vertu ekki lángt frá mér, statt þú upp,
vakna þú, svo eg nái rétti, minn Drottinn og
minn Gud! Vakna til míns málefnis. 24.
Dæm mig eptir þínu réttlæti, Drottinn minn
Gud! lát þá ekki hlakka yfir mér. 25. Ad
þeir ekki segi í sínu hjarta: sjá þar vora ósk!
ad þeir ekki segi: vér høfum gleipt hann. 26.
Láttu þá sneipast og verda til skammar alla í
einni hrúgu, þá sem hlakka yfir minni ólukku.
Lát þá íklædast skømm og hádúng sem þikjast
upp yfir mér. 27. Láttu þá fagna og gled-
jast sem hafa velþókknan á mínu réttlæti, og
lát þá ætíd segja: háttlofadur sé Drottinn!
sem hefir velþókknan á farsæld síns þénara.
28. Svo skal mín túnga prísa þitt réttlæti,
hvørn dag þinn ordstýr.

## 36. Sálmur.

*Bæn móti vondsku mannanna.*

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur
Davíds Drottins þénara. 2. Syndsam-
leg ord hins ógudlega eru mér minnisstæd. Þar
er einginn Guds ótti hjá honum, 3. því hann
smjadrar fyrir sjálfum sér í sinni eigin augsýn,
svo hann finni ekki sinn misgjørníng er hann
ætti ad hata. 4. Ord hans munns eru hans
ránglæti og svik, hann fráfælist hyggindi og
gódsemi. 5. Hann hugsar um ránglæti í sinni
hvílu, hann geingur þá leid sem ekki er gód,
þad illa fordast hann ekki.

6. Drottinn! til himna nær þín miskun, til
skýanna þín trúfesti. 7. Þitt réttlæti er sem
Guds a) fjøll, þínir dómar sem reigin djúp,
mønnum og sképnum bjargar þú, Drottinn! 8.
Hvørsu dýrmæt er þín miskun, ó Gud! mann-
anna børn fela sig undir skugga þinna væng-
ja. 9. Þau endurnærast af nægtum þíns húss,
og þú drykkjar þá med rennandi vatni þinnar
gledi, 10. því hjá þér er lífsins uppspretta, í

V. 7. Stædstu fjøll sem standa føst fyrir. V. 10. *a.* Mitt innsta hjarta.

þínu ljósi sjáum vér ljósið. 11. Lát þína miskun vera lánggjæða við þá sem adhyllast þig, og þitt réttlæti við þá sem eru ráðvandir af hjarta! 12. Lát mig ei af þeim dramblátu fóttroðinn verða, lát ei hønd hinna ógudlegu burt hrinda mér! 13 Þeir falli niður sem gjøra órétt, þeim verði burt hrundið, komist þeir ei aptur á fætur.

## 37. Sálmur.

Laun vondra og góðra.

1. Sálmur Davíðs. Illskastu ekki við illvirkjana! øfundaðu ekki þá ránglátu! 2. því einsog gras verða þeir skyndilega slegnir, og visna sem grænar jurtir. 3. Reiddu þig uppá Drottinn, og gjør hið góða, bú þú í landinu, og leita þinnar atvinnu ærlega. 4. Haf þú þína unaðsemd í Drottni, þá mun hann veita þér girndir þíns hjarta. 5. Veltu uppá Drottinn þinni áhyggju (vegi) hann mun gjøra (eitthvað), og reiddu þig á hann. 6. Hann mun láta þinn rétt framgánga sem ljós, og þitt réttlæti sem hádegis birtu. 7. Vona þú í kyrð á Drottinn og bíð hans! lát þér ei gremjast við þann mann, hvørs athæfi heppnast, við þann sem hefir í frammi pretti.

8. Hættu á reiðinni, slepptu bráðlyndinu, illskastu ekki, að eins til að gjøra íllt! 9. því hinum vondu verður útrudt, en þeir sem vona á Drottinn, skulu landið erfa. 10. Innan lítils tíma er sá ógudlegi ekki framar til; þegar þú leitar að hans stað, mun hann ekki finnast. 11. En þeir hógværu skulu landið erfa, og njóta unaðsemdar af þeim mikla friði (farsæld).

12. Sá ógudlegi bruggar svik þeim réttláta og nýstir tønnum yfir honum. 13. En Drottinn hlær að honum, því hann sjer, að hans dagur kémur (dauðadagur). 14. Hinir ógudlegu rikkja sverði, og spenna sína boga, svo að þeir felli hinn auma og fátæka, og myrði þá sem gánga ráðvandlega. 15. Þeirra sverð lendir í þeirra eigin hjarta, og þeirra bogi brotnar. 16. Betra er það litla sem hinn réttláti á, heldur enn nægtir margra ógudlegra. 17. Því armleggir hinna ógudlegu sundurbrotna, en Drottinn styður hina réttlátu. 18. Drottinn þekkir daga hinna óstraffanlegu, og þeirra arfur mun aldrei þverra. 19. Þeir munu ei til skammar verða á hinni vondu tíð, og í hallærinu munu þeir saðníng hafa. 20. En hinir ógudlegu munu fyrirfarast og Drottins óvinir, þó þeir séu sem landsins blómi, fyrirfarast, og sem reykur verða að eingu. 21. Sá ógudlegi tekur lán og betalar ekki, en hinn réttláti miskunar og géfur, 22. því Drottins blessuðu skulu landið erfa, hans bølvuðu verður útrudt. 23. Af Drottni festist gángur þess (ráðvanda) manns og hann hefir þóknan á hans vegi. 24. Þó að hann detti, skal hann ekki liggja, því Drottinn styður hans hønd. 25. Eg hefi verið úngur, og er orðinn gamall, en ekki hefi eg sjeð hinn réttláta yfirgéfinn, né hans afkvæmi (gánga eptir atvinnu) fara á húsgáng. 26. Hann er miskunsamur dag hvørn og lánar, og hans niðjar verða blessaðir. 27. Vík þú frá hinu illa og gjørðu gott, og þú munt búa eilíflega (í ró). 28. Því Drottinn elskar réttindi, og yfirgéfur ekki sína heiløgu; þeir verða eilíflega varðveittir; en afkvæmi hinna ógudlegu upprætist. 29. Þeir réttlátu erfa landið og búa eilíflega í því. 30. Munnur hins réttláta mælir vitsku, og hans túnga talar réttindi. 31. Løgmál hans Guðs er í hans hjarta, hans gángur er støðugur. 32. Hinn ógudlegi umsitur hinn réttláta og leitast eptir að drepa hann. 33. En Drottinn géfur hann ekki í hans hønd, og lætur hann ekki verða fyrir dómsáfelli, þegar hann kémur fyrir rétt. 24. Bíð þú Drottins og vertu støduglega á

hans vegi, þá mun hann hefja þig, svo þú erfir landið, þú munt það sjá að hinir ógudlegu verða afmáðir. 35. Eg sá einn ógudlegann, einn ofbeldis mann, hann þandi sig vídt út, sem mjög laufgað tré með djúpum rótum. 36. En hann hvarf, og sjá þu! hann var ekki framar til; eg leitaði að honum, en hann fanst ekki. 37. Taktu eptir þeim fullkomna, sjáðu þann ráðvanda, laun þess manns eru friður.

38. En yfirtroðslumennirnir munu í einu lagi afmáðir verða, og niðjar ógudlegra upprættir. 39. Hjálp hinna réttlátu kémur frá Drottni, hann er þeirra styrkur í neyðinni, 40. og Drottinn mun frelsa þá og hjálpa þeim, hann mun frelsa þá frá þeim ógudlegu, því þeir vona á hann.

## 38. Sálmur.

Harmaklögun og bæn um hjálp.

1. Ljóð Davíðs til endurminníngar. 2. Drottinn! straffa mig ekki í þinni reiði, og aga mig ekki í þinni bræði. 3. Því þín skeyti hafa hitt mig, og þín hönd niðurþrikkir mér. 4. Þar er ekkért heilt á mínum líkama, vegna þinnar reiði, þar er eingin ró í mínum beinum, vegna minna synda, 5. þvíað mínar misgjörðir gánga mér yfir höfuð og sem þúng birði draga mig niður. 3. Mín kýli lukta illa og í þeim grefur sakir minnar heimsku. 7. Eg geing lotinn og niðurlútur, hvørn dag í sorgarbúníngi. 8. Mínar lendar eru alverkja, og ekkért er heilbrygdt á mínum líkama. 9. Eg er máttlaus og mjög sundurmarinn; eg æpi hátt í minni hjartans ángist. 10. Drottinn! þér er kunnug öll mín gyrnd og mitt andvarp er þér ekki hulið. 11. Mitt hjarta slær ákaflega, minn kraptur yfirgéfur mig; jafnvel ljós minna augna víkur frá mér. 12. Mínir vinir og stallbræður standa gagnvart og horfa á mína plágu, og mínir náúngar standa lángt frá. 13. Þeir sem sitja um mitt líf, leggja snörur, og þeir sem leita míns óhapps, tala tjón og brugga svik allann daginn. 14. Eg em sem heyrnarlaus, og heyri ekki, sem mállaus, er ekki opnar sinn munn. 15. Eg em sem maður er ekki heyrir, og í hvørs munni ekki er svar. 16. Því þín bið eg Drottinn, þú munt bænheyra mig Drottinn minn Guð! 17. Því eg bið: lát þá ei hlakka yfir mér, þá minn fótur skeikar, lát þá ei hælast um við mig. 18. Eg em að falli kominn og mér svíar ekki. 19. Eg játa minn misgjörníng, og græt mína synd. 20. En mínir óvinir lifa og eru sterkir, og þeir eru margir sem hata mig án saka, 21. og þeir launa gott með illu, sem hatast við mig, af því eg leita eptir því góða

22. Yfirgéf mig ekki Drottinn minn Guð! 23. vertu ekki lángt frá mér! hraða þú þér, mér til bjargar, Drottinn mitt hjálpræði!

## 39. Sálmur.

Kvein og bæn og dauðakvíði.

1. Til Saungmeistarans Jedútúníta, ljóð Davíðs. 2. Eg sagði: „gái eg að mínum vegi að eg ekki syndgi með minni túngu? geymi eg minn munn með múl, svo leingi sem sá ógudlegi er fyrir mínum augum?" 3. eg var sem mállaus og þagði, eg þagði jafnvel um hið góða, en mín plága sefaðist ekki; 4. mitt hjarta brann í mér, í mínu skapi tendraðist eldur. Þá talaði eg með minni túngu. 5. Drottinn! láttu mig þekkja mína endalykt og minna daga mælir, að eg þekki, hve skjótt eg skal æfina enda; 6. sjá! sem þverhönd hefir þú gjört mína daga, og mín lífstíð er hjá þér sem ekkért; sannarlega er sérhvør maður hégómi, hvørsu fast sem hann stendur, (málhvíld). 7. Já, eins og skuggi líður maðurinn áfram, forgéfins gjöra þeir sér mikla armæðu, þeir samanhrúga, og vita ei hvør það fær. 8. Og nú Drottinn! hvørs

skal eg vona? mín von er á þér! 9. Frelsa þú mig frá øllum yfirtrodslum! Láttu mig ekki verda þeim gudlausu ad gisi! 10. Þó — eg þegi og lyk ekki upp mínum munni, því þú, þú gjørdir þad. 11. Taktu þína plágu frá mér, því eg stendst ekki høgg þinnar handar. 12. Þegar þú agar einhvørn med synda straffi, þá spillir þú hans fegurd, eins og mølur (fati), vissulega er hvør madur hégómi (Málhvíld). 13. Heyr þú Drottinn mína bæn, og snú þínum eyrum ad mínu hrópi! þegi þú ekki vid mínum tárum, því eg er framandi hjá þér; géstur, eins og allir mínir fedur. 14. Líttu frá mér, ad eg meigi endurnærast, ádur enn eg fer hédan, og er ekki meir.

## 40. Sálmur.

Þakklæti og bæn.

1. **Til hljódfærameistarans. Sálmur Davíds.** 2. Eg beid Drottins øruggur, hann beigdi sig til mín og heyrdi mitt hróp. 3. Og hann dróg mig upp úr þeirri háskalegu grøf, þeirri seigu bleitu, og hann setti mína fætur á fastann klett, og styrkti minn gáng. 4. Og hann lagdi mér í munn nýtt kvædi, lofsaung fyrir vorn Gud. Þad skulu margir sjá, og óttast Drottinn, og reida sig á hann. 5. Sæll er sá madur sem treystir Drottni, og snýr ei sínu andliti til dramblátra, og til þeirra lýgigjørnu. 6. Drottinn, minn Gud! þú hefir margfaldad þínar dásemdir og rádslaganir, oss vidvíkjandi; einginn er líkur þér; vilda eg kunngjøra þær, og segja frá þeim, yrdu þær ei taldar. 7. Sláturfórnir og matoffur þóknast þér ekki. Mín eyru hefir þú gégnum borad, brennifórnir og syndaoffur viltu ekki. 8. Þá sagdi eg; sjá eg kém med løgmáls skrána, skrifada í mitt hjarta. 9. Mig lángar til ad gjøra þinn vilja minn Gud, og þitt løgmál er innst í mínu hjarta. 10. Eg kunngjøri þitt réttlæti á mikilli samkomu. Sjá! mínar varir þvínga eg ekki. Þú veitst þad Drottinn. 11. Þitt réttlæti fel eg ekki í mínu hjarta. Þína trúfesti og hjálprædi vegsama eg, þína miskun og sannleika dyl eg ekki fyrir þeim mikla søfnudi. 12. En þú Drottinn drag þú ekki í hlé vid mig þína miskun, láttu þína miskun og sannleika ætíd vardveita mig. 13. Því ótøluleg óhøpp umspenna mig, mínar syndir hópast í kríngum mig, svo eg gét ekki sjed útyfir, þær eru fleiri en hárin á mínu høfdi, og mitt hjarta hefir yfirgéfid mig. 14. Lát þér þad vera gédþekkt Drottinn! ad frelsa mig, flýttu þér Drottinn! mér til hjálpar. 15. Láttu þá sneypast og til skammar verda gjørsamlega, sem sitja um mitt líf; láttu þá hørfa til baka og verda til skammar, sem vilja mér íllt. 16. Lát þá verda hissa á sinni egin skømm, sem hrópa til mín, hæ! hæ! 17. Þá fagna þeir allir og gledjast í þér, sem þín leita. Lát þá sem elska þitt hjálprædi, ætíd segja: mikill er Drottinn! 18. Eg er vesæll og aumur, en Drottinn hugsar samt til mín. Þú ert mín hjálp og minn Frelsari! minn Gud! tef þú ekki!

## 41. Sálmur.

Bæn eins ólukkulega.

1. **Til hljódfærameistarans. Ljódmæli Davíds.** 2. Sæll er sá sem annast hinn lítilmótlega; á þeim vonda degi mun Drottinn bjarga honum. 3. Drottinn mun vardveita hann og halda honum vid lífid; hann mun verda sæll á jørdunni, og þú munt ekki afhenda hann vild hans óvina. 4. Drottinn mun styrkja hann á hans sóttarsæng, øllu

---

V. 7. Mín eyru, etc. gjørt mig þinn þjón. Adr: látid mig vita, nefnil: ad þú vildir hvørki sláturfórnir né matoffur. V. 16. Sem hælast um vid mig.

hans rúmi snýr þú vid (til lækníngar) í hans sjúkdómi. 5. Eg bid: Drottinn miskuna mér! lækna þú sálu mína, því eg hefi syndgad á móti þér; 6. mínir óvinir tala íllt um mig, og segja: nær ætla hann deyi? nær mun hans nafn forgánga?. 7. Komi einhvør þeirra ad vitja mín, talar hann fals, hans hjarta safnar sér vondsku, hann geingur út og talar þar um. 8. Allir, sem mig hata, tala um mig saman í hálfum hljódum, og brugga mér íllt. 9. Og segja: fordjørfun er úthellt yfir hann; sá sem þarna liggur skal ekki komast á fætur. 10. Einnig sá madur, sem hafdi frid vid mig, sem eg reiddi mig uppá, sem át mitt braud, hann lyptir sínum hæl móti mér.

11. En þú Drottinn miskuna þú mér, hjálpadu mér á fætur, ad eg géti goldid þeim fyrir, 12. þar af sé eg, ad þú hefir velþóknan á mér, ad minn óvinur hlakkar ekki yfir mér. 13. En mig stydur þú í mínu sakleysi, og hefir mig þér æfinlega fyrir augum. 14. Lofadur veri Drottinn Israels Gud, frá eilífd til eilífdar. Amen, Amen.

# Ønnur Bók.

## 42. Sálmur.

*Laungun til Musterisins.*

1. Til hljódfærameistarans. Undirvísun fyrir Koras børn. 2. Einsog hjørturinn kallar eptir rennandi vatni, svo kallar mín sál, Gud! til þín, 3. mína sál þyrstir eptir Gudi, eptir þeim lifanda Gudi, nær mun eg koma, ad eg sjái Guds auglit. 4. Minn grátur er mín fæda dag og nótt, af því daglega er vid mig sagt: hvar er þinn Gud? 5. Þegar eg hugsa til þess, þá úthellir mitt hjarta sér í tárum, hvørnig eg ferdadist med þessum hóp, og gékk med þeim til Guds húss, med fagnadarópi og lofsaung, medal þess fjølda, sem héldt hátídina. 6. Hvar fyrir ertu svo nidurbeigd mín sál, og svo óróleg í mér? bíd þú eptir Gudi, því enn nú mun eg þakka honum, því frá honum kémur hjálprædid. 7. O Gud! mín sál er nidurbeigd í mér, af því eg minnist þín frá Jórdanslandi og frá Hermon, því litla fjalli. 8. Eitt flód kallar annad, med dunum þinna fossa allar þínar øldur og bylgjur steypast yfir mig. 9. (Adur) á daginn veitti Drottinn mér sína miskun, og á nóttunni var hans lofsaungur hjá mér, bæn til Guds míns lífs. 10. Nú segi eg vid Gud: mitt bjarg! hví hefir þú gleymt mér? hví verd eg ad gánga í sorgarbúníngi þá óvinurinn ad mér þreyngir? 11. Mínir óvinir smána mig, svo ad mín bein merjast, med því ad segja yduglega vid mig: hvar er þinn Gud? 12. Hvar fyrir ertu svo nidurbeigd mín sál og svo ángurvær. Bíd þú Guds! því eg mun honum enn nú þakkir gjøra, mínum frelsara og mínum Gudi.

## 43. Sálmur.

*Bænar andvarp.*

1. Dæm mig, ó Gud, og taktu ad þér mitt málefni móti ómildu fólki; frelsa þú mig frá følskum og ránglátum manni. 2. Því þú ert Gud míns athvarfs, hvar fyrir útskúfar þú mér? hvar fyrir skal eg gánga í sorgarbúníngi í því óvinurinn þreyngir ad mér. 3. Send þú þitt ljós og þína nád, ad hún leidi mig og flytji mig til þíns heilaga fjalls og til þíns bústadar, 4. ad eg meigi komast til Guds altaris, til Guds míns fagnadar og gledi, og þakka þér med hørpuhljóm, ó Gud, minn Gud! 5. Hví ertu svo nidurbeigd mín sál og óróleg í mér? bíd þú Guds; því eg mun enn nú þakka honum, mínum frelsara og mínum Gudi.

## 44. Sálmur.

Bæn í trúarbragða ofsókn.

1. Til hljóðfærameistarans. Kénnsluljóð af Koras børnum. 2. Gud! vér høfum heyrt þad med vorum eyrum, vorir forfedur søgdu oss frá því stórvirki, sem þú gjørdir á þeirra døgum í fornøld. 3. Þú burtrakst þjódirnar og gródursettir þá (forfedurna); þú beittir hørku vid þjódirnar, en útbreiddir þá, 4. því þeir inntóku ekki landid med sínum sverdum, og þeirra armur gaf þeim ekki sigur, heldur þín hægri hønd og þinn armur, og þíns andlitis ljós, af því þú hafdir velþóknan á þeim. 5. Þú hinn sami, ó Gud! ert minn Konúngur, send þú Jakob frelsi! 6. Fyrir þína adstod leggjum vér ad velli vora óvini, í þínu nafni trodum vér undir fótum þá, sem rísa oss á móti. 7. Því eg reidi mig ekki uppá minn boga, og mitt sverd gétur ekki frelsad mig. 8. En þú frelsar oss frá vorum óvinum og sneypir þá sem oss hata. 9. Af Gudi viljum vér hrósa oss daglega og vegsama þitt nafn eilíflega. (málhvíld). 10. En nú útskúfadir þú oss og létst oss verda til skammar; þú vildir ei fara út med vorum her. 11. Þú létst oss hopa fyrir vorum mótstødumønnum, og þeir sem oss hata, feingu herfáng. 12. Þú gjørdir oss ad slátrunarhjørd, og tvístradir oss medal þjódanna. 13. Þú seldir þitt fólk fyrir ekkért, þú létst ekki verd á því vaxa. 14. Þú gjørdir oss ad forsmán hjá vorum nábúum, ad spotti og hádi þeim sem búa í kríngum oss. 15. Þú gjørdir oss ad ordshætti medal þjódanna, svo ad menn skaka ad oss høfudin medal annara þjóda. 16. Hvørn dag stendur mín smán fyrir mér, og míns andlitis sneypa þekur mig, 17. vegna spottarans orda og hins lastmáluga; vegna óvinarins og hins hefndargíruga. 18. Allt þetta er yfir oss komid, þó høfum vér ekki gleymt þér og ekki rofid þinn sáttmála. 19. Vort hjarta snéri sér ekki frá þér, og vor gángur beigdist ekki frá þínum vegi, 20. en þótt þú hrindtir oss nidur til drekanna bústadar, og hyldir oss med daudans skugga. 21. Ef ad vér hefdum gleymt nafni vors Guds, og upprétt vorar hendur til annarlegs Guds, 22. mundi Gud þá ekki ransaka þad? því hann þekkir hjartans leyndardóma. 23. En fyrir þína skuld erum vér daglega í hel slegnir, vér erum álitnir sem slátrunar saudir. 24. Vakna þú, Drottinn! því sefur þú? stattu upp! útskúfa oss ekki eilíflega. 25. Hvarfyrir byrgir þú þitt auglit, og gleymir vorri eymd, og þreyngíngu? 26. Því niðurbeigd í duftid er vor sál; nidurþrykktur til jardar er vor líkami. 27. Bú þig út, vor hjálpari! og frelsa oss sakir þinnar miskunar.

## 45. Sálmur.

Kóngs losgjord.

1. Til hljódfærameistarans. Kénnsluljód af Koras børnum, elskusamlegt kvædi. 2. Mitt hjarta úteys sér í yndislegu kvædi. Eg vil flytja ljód Konúnginum, mín túnga sé sem penni ens liduga skrifara. 3. Frídari ertu heldurenn mannanna børn, yndi streymir frá þínum vørum, því hefir Gud blessad þig eilíflega. 4. Girdstu sverdi vid þína hlid, þú hetja! þinni prýdi og dýrd! 5. Og far þú heppilega fram í þinni dýrd, sakir þíns sannleika, hógværdar og réttvísi. Dásamleg verk skal þín hægri hønd kénna þér! 6. Þínar ørfar eru hvestar — þjódir skulu falla fyrir þér — þær (ørfarnar) skulu fara í hjarta Kóngsins óvina.

7. Þitt hásæti, ó Gud! stendur æ og ætíd varandi. Þíns ríkis sproti er réttlætisins sproti.

V. 3. Gródursettir þá: nl. létst forfedur vora fá land ad búa í. Utbreiddir þá: létst þeirra kyn fjølga.

8. Þú elskar réttvísi, og hatar ógudlegleika, þar-
fyrir hefir Gud, þinn Gud smurt þig med fagn-
adarins vidsmjøri framar enn þína medbrædur.
9. Myrra, Alóe og Kasía eru øll þín klædi; frá
fílabeins høllinni gledja þeir þig. 10. Kónga
dætur eru medal þinna útvøldu; Drottníngin
stendur vid þína hægri hønd í gulli frá Ofír.
11. Heyr þú dóttir, og líttu til, og beig þitt
eyra, og gleym þínu fólki og þíns fødurs húsi.
12. Kóngurinn hafi gédþekkni á þinni fegurd;
hann er þinn herra, og þú skalt tjá honum holl-
ustu. 13. Týrus dætur med gjøfum nidur-
beigja sig fyrir þínu augliti, þeir ríku medal
fólksins. 14. Mikid vegsamleg er Kóngsdótt-
irin inni (í sínu herbergi) hennar klædnadur er
gulli lagdur. 15. Í útsaumudum klædum er
hún til Kóngsins leidd. Meyarnar sem fylgja
henni, skulu til þín leidast. 16. Þær skulu
framleidast med føgnudi og gledi, og koma í
Kóngsins høll. 17. Synir skulu vera þér í for-
eldra stad; þú munt gjøra þá ad høfdíngjum í
øllu landinu. 18. Eg vil vegsama þitt nafn
medal allra kynkvísla, því skulu þjódirnar þig
heidra ætíd og eilíflega.

## 46. Sálmur.

Þakklæti eptir afstadinn háska.

1. Til hljódfærameistarans af Koras
børnum, kvædi á (hljódfærid) Almuth.
2. Gud er vort athvarf og styrkur, hjálp í þreyng-
íngum margreynd; 3. því hrædumst vér ekkért
þóad jørdin fari úr lagi, og fjøllin flytjist midt
í hafid, 4. þóad sjórinn ólgi og æsist, svo ad
fjøllin hristist af hans offa (málhvíld), 5. áin
mun samt og hennar rennur gledja Guds stad,
heilagann bústad ens hædsta. 6. Gud er midt
í honum, hann skal ekki bifast. Gud verndar
hann (þegar morguninn frambrýtst) í tíma.
7. Þjódirnar geisa, ríkin bifast, hann útsendir
sína raust, jørdin brádnar. 8. Drottinn her-
skaranna er med oss. Jakobs Gud er vort vígi,
(málhvíld). 9. Komid og sjáid Drottins verk,
hvørsu hann gjørir eydileggíngu á jørdunni. 10.
Hann lætur strídum linna til jardarinnar enda,
sundurbrýtur bogann, og høggur sundur spjót-
in, uppbrennir vagnana med eldi. 11. Hætt-
id og vidurkénnid: ad eg er Gud upphafinn
medal þjódanna, upphafinn á jørdinni. 12.
Drottinn herskaranna er med oss. Jakobs Gud
er vort vígi, (málhvíld).

## 47. Sálmur.

Lofgjord eptir feinginn sigur.

1. Til hljódfærameistarans af Koras
børnum, ljódmæli. 2. Klappid lófum sam-
an allar þjódir! fagnid fyrir Drottni med gledi
hljóm! 3. Því Drottinn sá ædsti er voldugur,
mikill Kóngur á allri jørdinni. 4. Hann lagdi
fólkid undir oss, og þjódirnar undir vorar fæt-
ur. 5. Hann valdi oss vorn arf, dýrd Jakobs,
sem hann elskadi, (málhvíld). 6. Gud sté upp
med fagnadarraust. Drottinn med básúnu
hljómi. 7. Sýngid fyrir Gudi, ó sýngid! sýng-
id fyrir vorum Konúngi! ó sýngid! 8. Því
Gud er Konúngur allrar jardarinnar. Sýng-
id honum sálma, Gud ríkir yfir þjódunum. 9.
Gud situr í sínu heilaga hásæti. 10. Þjód-
anna furstar safnast sem fólk Guds Abrahams,
því Gudi tilheyra høfdíngjar jardarinnar; hann
er mjøg upphafinn.

## 48. Sálmur.

Þakklæti fyrir Jerúsalems frelsun.

1. Ljód af Koras børnum. 2. Mik-
ill er Drottinn, og hálofl egur í borg vors Guds
á sínu heilaga fjalli! 3. Yndislega rís Síons
fjall, gjørvalls landsins gledi, nordan til vid borg
þess mikla Konúngs. 4. Gud er alþekkt hæli
hennar høllum. 5. Því sjá! Kóngarnir komu
saman, en þeir fóru allir framhjá. 6. Þegar

þeir litu þángad, hnikkti þeim vid. Þeir skélk-
udust og flýttu sér burt. 7. Skjálfti kom yfir
þá, ángist, sem konunnar, er tekur jódsótt; 8.
sem austanvindur er brýtur Tarsus skipin. 9.
Eins og vér høfum heyrt, svo sáum vér þad í
borg allsherjar Drottins, í borginni vors Guds.
Gud vardveitir hana eilíflega, (málhvíld). 10.
Vér hugsum, ó Gud! til þinnar miskunar hér í
þínu musteri. 11. Eins og þitt nafn, ó Gud!
svo nær þín lofgjørd til jardarinnar enda, af
réttlæti er þín hægri hønd full. 12. Síons
fjall gledur sig, Júdalands dætur fagna yfir
þínum dómum. 13. Gángid umkríng Síon á
alla vegu, og teljid hennar turna, 14. takid ept-
ir hennar múrveggjum, gángid um hennar hall-
ir, ad þér gétid sagt frá því þeim komandi kyn-
slódum. 15. Því þessi Gud er vor Gud æ og
eilíflega, hann fylgir oss til æfiloka.

## 49. Sálmur.

Huggun þeirra sem líða ofsókn af þeim voldugu.

1. Til saungmeistarans, af Koras
børnum, ljód. 2. Heyrid þetta allar þjódir!
snúid híngad ydar eyrum allir heimsins innbú-
ar, 3. bædi háir og lágir, ríkir og fátækir, allir
til samans. 4. Minn munnur talar vísdóm,
og hugsun míns hjarta er skinsemd. 5. Eg vil
hnegja mitt eyra til ljódmæla, og framsetja mitt
andríka tal med hørpu hljóm. 6. Hvar fyr-
ir skal eg óttast á þeim vondu døgum, þegar
minna fóttrodenda vondska umkríngir mig? 7.
þeirra sem reida sig uppá sinn aud og stæra sig
af sínu mikla ríkidæmi? 8. Einginn gétur frels-
ad sinn bródur né vid Gud forlíkad, 9. því hans
sálar (lífs) endurlausn kostar ofmikid, (og hann
hlýtur ad sleppa því ad eilífu), 10. ad hann
lifi ad eilífu og ekki sjái grøfina. 11. Því
menn sjá ad þeir vitru deya, ad hinn fávísi
og heimski deya líka, og yfirláta aud sinn til
annara. 12. Þeir hugsa ad hús sitt standi
eilíflega, og sinn bústadur frá kyni til kyns, ad
þeirra nafn muni verda vídfrægt á jørdinni.
13. En jafnvel sá madur sem er í virdíngu,
verdur ei varanlegur, hann líkist dýrunum sem
menn slátra. 14. Þessi þeirra breitni er heimska,
þó taki undir þeirra tal þeir sem þeim fylgja, (mál-
hvíld). 15. Eins og fé eru þeir reknir til hel-
ju, daudinn eydir þeim, snart munu þeir
hreinskilnu ofan á þá gánga og grøfin mun
afmá þeirra mynd, svo ad þeir eingann bústad
skulu framar hafa. 16. En Gud mun frelsa
mína sálu af daudans valdi, því hann hefir
tekid mig ad sér. (Málhvíld). 17. Óttastu
ekki þó einhvør gjørist ríkur, þó dýrd hans
húss verdi mikil. 18. Því hann mun ekkért
med sér taka þegar hann deyr, hans dýrd
fylgir honum ekki, 19. þó ad hann prísi sig
sælann medan hann lifir, og þó þeir hrósi þér
fyrir þad ad þú heldur þig vel, 20. þú skalt
þó koma til kynslódar þinna fedra, sem ad ei-
lífu ekki sjá ljósid. 21. Sá madur sem er í
dýrd, hafi hann ekki vitid, þá er hann líkur
fénadinum sem er fángadur.

## 50. Sálmur.

Um þá réttu Guds dýrkun.

1. Sálmur Asafs. Gud, Gud Drottinn
talar og kallar jardarinnar innbyggendur frá upp-
runa sólar allt til hennar nidurgaungu. 2. Frá
Síon, fegurdarinnar ímynd, opinberar Gud sig
dýrdlega. 3. Vor Gud, hann kémur og þeig-
ir ekki, eldur geingur undan honum, og í kríng-
um hann er mikill stormvindur; 4. hann kallar
til himinsins uppyfir, og til jardarinnar, til ad
dæma sitt fólk. 5. „Safnid mér mínum hei-
løgu, sem gjørt hafa sáttmála vid mig med offr-
um", 6. (og himnarnir skulu kunngjøra hans
réttvísi, því Gud er sá sem dæmir). Málhvíld.
7. Heyr mitt fólk! láttu mig tala Ísrael!
eg vil vitna fyrir þér: eg er Gud, þinn Gud.
8. Fyrir þinna fórnfæringa sakir ávíta eg þig

ekki. Þínar brennifórnir eru jafnan frammi fyrir mér. 9. Eg þarf ekki uxans úr þínu húsi, né geithafursins úr þinni stíu. 10. Því øll dýrin á mørkinni heyra mér til, og dýrin á fjøllunum þúsundum saman. 11. Eg þekki alla fuglana á fjøllunum, og dýrin á mørkinni eru mér kunnug. 12. Þó mig húngradi, mundi eg ekki segja þér frá því, því jørdin er mín og allt sem á henni er. 13. Ætla eg eti uxanna kjøt, eda drekki hafranna blód? 14. Offra þú Gudi þakkargjørd og gjald þú enum ædsta þín heit. 15. Ákalla mig í neydinni, eg mun frelsa þig, og þú skalt vegsama mig.

16. En til hins ógudlega segir Gud: hvad kémur þér þad vid ad tala um mína setnínga, og taka minn sáttmála þér í munn. 17. Þar ed þú hatar agann, og kastar mínum ordum á bak þér aptur? 18. Þegar þú sér þjófinn, fer þú med honum, og hefir samfélag vid hórunarmenn. 19. Þinn munn brúkar þú til ílls, og þín túnga bruggar svik. 20. Þú situr og talar móti þínum bródur, og baktalar son þinnar módur. 21. Þetta hefur þú adhafst, og eg hefi þagad, þá hugsadir þú ad eg væri líkur þér. En eg skal straffa þig og láta þig sjá. 22. Hyggid ad þessu, þér sem hafid gleimt Gudi, ad eg ekki sundurtæti svo, ad einginn géti bjargad. 23. Hvør sem offrar þakkargjørd sá heidrar mig, og hvør sem gáir ad sínum vegi, þann vil eg láta sjá Guds lidsinni.

## 51. Sálmur.

Bæn um fyrirgéfníng.

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur Davíds, 2. Þá Natan Spámadur kom til hans, eptir ad hann lagdist med Bersebu. 3. Miskuna mér, Gud! eptir þinni gjædsku, og afmá mínar yfirtrodslur, eptir þinni miklu miskunsemi. 4. Þvo mig hreinann af minni misgjørd og hreinsa mig af minni synd. 5. Því eg þekki mína yfirtrodslu, og mín synd er ætíd frammi fyrir mér. 6. Þér, já, þér einum hefi eg á móti brotid, og adhafst þad illa fyrir þinni augsýn, svo þú ert réttvís þegar þú talar, og hreinn þegar þú dæmir. 7. Sjá! í misgjørd em eg fæddur, og mín módir hefir gétid mig í synd. 8. Sjá! þú hefir velþókknan á hjartans hreinskilni, kénn þú mér vísdóminn í kirrþei. 9. Þvo þú mig med Ísópi af synd, svo eg verdi hreinn, þvo þú mig, svo eg verdi hvítari enn snjór! 10. Láttu mig verda varann vid føgnud og gledi, svo ad þau bein hresist vid sem þú hefir sundurmarid. 11. Byrg þitt auglit fyrir mínum syndum, og afmá allar mínar misgjørdir! 12. Skapa í mér hreint hjarta, ó Gud! og endurnýa í mér stødugann anda! 13. Kasta mér ekki burt frá þínu augliti, og tak ekki þinn heilaga anda frá mér! 14. Géf mér aptur føgnud þíns frelsis, útbú mig med øruggum anda.

15. Svo skal eg kénna yfirtrodslumønnunum þína vegu, og syndarar munu umvenda sér til þín. 16. Frelsa mig frá blódskuld, Gud! minn frelsis Gud! svo ad mín túnga fagni yfir þinni gjædsku! 17. Drottinn! opna þú mínar varir, svo minn munnur kunngjøri þitt lof. 18. Því þú hefir einga vild á offri, annars mundi eg greida þér þad, á brennifórn hefir þú ekki velþókknan. 19. Sundurknosadur andi er Gudi þægilegt offur. Harmþrúngid og sundurmarid hjarta munt þú, ó Gud! ekki fyrirlíta. 20. Gjør þú vel vid Síon eptir þinni gjædsku. Uppbygg þú Jerúsalems múrveggi! 21. Þá munt þú gledjast af gudrækilegum offrum, brennifórnum og adalfórnum. Þá munu menn fórnfæra uxum á þínu altari.

## 52. Sálmur.

Móti drambláتum óvin.

1. Kénnsluljóð Davíðs, 2. þegar Doeg Edomíti kom og kunngjörði Sál og sagði: David er kominn í Akímeleks hús a). 3. Því stærir þú þig af þinnivondsku, þú tíranni? Guðs miskun varir dag hvørn. 4. Þín túnga ástundar eintómann skaða, lík beittum rakhníf, þú véla smiður! 5. Þú elskar íllt en ekki gott, lýgi meir enn að tala það sem rétt er. (Málhvíld). 6. Þú elskar allt skaðrædis tal, þú svikafulla túnga! 7. Guð mun líka tortína þér algjörlega, hann mun burttaka þig og útrýdja þér af tjaldbúðinni, og uppræta þig af landi þeirra sem lifa. (Málhvíld). 8. Og þeir ráðvøndu munu sjá það og óttast, og að honum munu þeir hlæa og segja: 9. „Sjá þar þann mann sem ekki hélt Guð fyrir sinn styrk, heldur reiddi sig á sinn mikla auð og áleit vondskuna sinn krapt"! 10. En eg mun vera sem grænn viðsmjørs viður í Guðs húsi, eg reiði mig á Guðs miskun um aldir og að eilífu. 11. Eg mun þakka þér eilíflega fyrir það þú gjørðir, og eg mun vona á þitt nafn, því það er gott fyrir augum þinna heiløgu.

## 53. Sálmur.

Umkvörtun hvað menn eru vondir.

1. Til hljóðfærameistarans, að spila á flautu. Kénnsluljóð Davíðs. 2. Heimskínginn segir í sínu hjarta: „þar er einginn Guð." Vond og viðurstyggileg eru þeirra verk, þar er einginn sem gjøri gott. 3. Guð lítur af himni niður yfir mannanna børn, til að sjá hvørt nokkur sé hygginn, nokkur sem leiti Guðs. 4. Þeir eru allir fallnir frá, allir spilltir, þar er einginn sem gjørir gott, ekki einn.

5. Ætla þeir komi ekki til viðurkénníngar sem rángt gjøra, þeir sem uppeta mitt fólk, eins og brauð, og ei ákalla Guð? 6. Nú! þeir munu verða óttaslegnir, þar sem ekkért er að óttast, því Guð tvístrar þeirra beinum sem setja herbúðir móti þér, þú gjørir þá til skammar, því Guð hefur útskúfað þeim.

7. Frá Síon komi Israel frelsi! leiði Guð til baka sitt herteкna fólk, þá mun Jakob fagna, og Israel gleðst.

## 54. Sálmur.

Bæn og traust til Guðs. (1 Sam. 26, 1. fl.)

1. Til saungmeistarans á strengjaleik. Kénnsluljóð af Davíð. 2. Þegar Sef.ær komu og sögðu við Sál: hefir ekki David falið sig hjá oss? 3. Guð! frelsa mig fyrir þitt nafn, og lát mig ná rétti fyrir þinn krapt. 4. Guð! heyr mína bæn, beig þitt eyra til orða míns munns; 5. því útlendir rísa móti mér, og tírannar sitja um mitt líf, og hafa ekki Guð sér fyrir augum. (Málhvíld). 6. Sjá! Guð er minn hjálpari. Drottinn er sá sem viðheldur mínu lífi, 7. hann mun endurgjalda vondskuna mínum óvinum; já, afmá þú þá eptir þinni trúfesti. 8. Fúslega mun eg færa þér fórnir, vegsama þitt nafn, Drottinn! því það er gott. 9. Af því hann frelsaði mig af allri neyð og mitt auga gladdi sig yfir mínum óvinum.

## 55. Sálmur.

Bæn móti svikulum vin.

1. Til hljóðfærameistarans á strengjaleik. Kénnsluljóð Davíðs. 2. Guð! snú þínu eyra til minna bæna, og fel þig ekki fyrir mínni grátbeiðni. 3. Gef gaum að mér og bænheyr mig, eg ráfa til og frá í minni sorg og kveina vegna óvinarins óhljóða. 4. Vegna undirþrykkíngar hins óguðlega, því þeir vilja gjøra mér órétt og í reiði ofsækja mig

V. 2. a. 1 Sam. 22, 9. fl. V. 3. Þar er bætt inní í íslendskunni, sem ekki finnst hjá øðrum: að þú fær skaða gjört.

með hatri. 5. Mitt hjarta skélfur í mér, og dauðans ángist yfirfellur mig. 6. Otti og skjálfti kémur yfir mig, og ofboð þekur mig. 7. Eg segi við sjálfann mig: æ að eg hefði vængi sem dúfa, þá mundi eg fljúga burt og leita að ró. 8. Eg mundi fara lángt í burt og (vera á nóttunni) á eyðimörku. (Málhvíld). 9. Fljótar skyldi eg burt flýa enn ákaflegur stormur, óveður.

10. Drottinn afmá þú þá, sundurskipt þú þeirra túngum, því eg sje ofbeldi og sundurþikkju í staðnum. 11. Nótt og dag geingur þetta um kríng á hans múrveggjum. Ránglæti og mæða er í honum miðjum. 12. Tjón mitt í honum, og frá hans strætum víkja ekki svik og fals. 13. Það er ekki fjandmaðurinn sem svívirðir mig, eg mundi þola það. Það er ekki sá mig øfundar, sem hlakkar yfir mér; eg mundi fela mig fyrir honum. 14. Heldur ert þú það maður, sem eg matti jafnt mér, minn félagi og minn kunníngi. 15. Við sem ráðguðumst saman vinsamlega, sem geingum saman í Guðs hús. 16. Dauðinn komi sviplega yfir þá, svo þeir fari lifandi niður í helju, því þar er vondska í þeirra bústøðum, mitt í þeim. 17. Eg kalla til Guðs, og Drottinn mun frelsa mig. 18. Um kvøld, morgna og miðdegi, kvarta eg og andvarpa, hann heyrir mína raust. 19. Hann frelsar mína sálu frá stríði, og veitir frið, því margir eru á móti mér. 20. Guð heyrir mig og auðmýkir þá. Hann sem var frá eilífð, mun auðmýkja þá (málhvíld), ekki bæta þeir sig, og ekki óttast þeir Guð. 21. Þeir leggja hendur á sína stallbræður, og rjúfa skammarlega sína sáttmála. 22. Þeirra munnur er kløkkvari enn smjør, og hafa þó stríð í hug; þeirra orð eru mjúkari enn viðsmjør, og eru þó brugðin sverð. 23. Kasta þinni áhyggju uppá Drottinn, og hann mun veita þér atvinnu, hann mun ekki leifa að eilífu, að hinn ráðvandi bifist. 24. En þú ó Guð! munt steypa þeim (vondu) niður í gløtunarinnar grøf. Þeir blóðgýrugu og flárádu munu ei hálfna sína lífdaga. En eg — eg vil reiða mig á þig.

## 56. Sálmur.

Traust á Guðs hjálp gégn óvinum.

1. **Til hljóðfærameistarans eptir lagi: „mállaus dúfa í fjærlægum skógi"; Davíðs huggunarljóð, þá Filistear høfðu hertekið hann í Gat** a). 2. Guð vertu mér náðugur, því mennirnir vilja uppsvelgja mig, óvinirnir þreyngja að mér daglega. 3. Uppsvelgja vilja mig mínir óvinir, á hvørjum degi, því margir eru þeir, sem rembilega stríða á móti mér.

4. Þegar eg er hræddur, þá treysti eg þér; 5. af Guði stæri eg mig, af hans orði; á Guð treysti eg, og óttast ekki: hvað géta mennirnir gjørt mér. 6. Hvørn dag hindra þeir mín verk, allar þeirra hugsanir eru móti mér, til ílls. 7. Þeir fylgjast að og fela sig, og gá að mínum sporum, því þeir sitja um mitt líf. 8. Ætla þeir komist undan (straffi), svo rángiátir sem þeir eru? Guð! legg þá að velli í þinni reiði! 9. Tel þú mína útlegð, geim þú mín tár í þinni fløsku, standa þau ei í þinni bók?

10. Þá munu mínir óvinir víkja til baka á þeim degi er eg hrópa: þetta veit eg að Guð er með mér. 11. Af Guði stæri eg mig, af hans orði, af Drottni stæri eg mig, af hans orði. 12. Á Guð reiði eg mig, eg er óhræddur, hvað géta mennirnir gjørt mér? 13. Heit við þig, ó Guð! hvíla á mér, með þakkarfórn vil eg þér þau færa, 14. því þú frelsar mína sálu frá dauðanum, já, mína fætur frá hrøsun,

V. 1. *a*. Sjá Sálm: 16, 1. V. 9. Utlegð: útlegðar daga.

svo eg má gánga fyrir Gudi í ljósi lifandi manna.

## 57. Sálmur.

Bæn um hjálp. Trúartraust.

1. **Til hljódfærameistarans med lagi: fordjarfa ekki. Davíds huggunarljód, þá hann flýdi fyrir Sál í hellirinn a).** 2. Gud vertu mér nádugur! vertu mér nádugur. Því mín sál flýr til þín, eg flý í skugga þinna vængja, þángad til ólukkan er framm hjá farin. 3. Eg kalla til ens ædsta Guds, til Guds sem fyrir mig vinnur? 4. Hann sendir nidur af himni og frelsar mig; hann sneypir þá sem vilja uppsvelgja mig. (Málhvíld). Gud sendir sína miskun og trúfesti. 5. Mitt líf er medal ljóna, eg ligg medal þeirra sem útþeita eldi, medal manna, hvørra tennur eru spjót og pílur, og hvørra túngur eru beitt sverd.

6. Láttu sjá þig, ó Gud! yfir himnunum, og þína dýrd yfir allri jørdinni! 7. Þeir løgdu net fyrir minn gáng, mín sál eingdi sig saman, þeir grófu grøf fyrir mig, og féllu sjálfir midt í hana.

8. Mitt hjarta er rólegt, ó Gud! mitt hjarta er rólegt; eg vil sýngja og spila á hørpu. 9. Vakna minn andi! vakna mitt hljódfæri og harpa! eg vil vakna med morgunrodanum. 10. Drottinn! eg vil lofa þig medal fólksins, eg vil sýngja þér lof medal þjódanna, 11. því þín miskun er stór, nær til himna og þín trúfesti til skýanna. 12. Sýn þig, ó Gud! yfir himininn hafinn, yfir himnana, og þína dýrd yfir alla jørdina!

## 58. Sálmur.

Gégn ránglátum dómara.

1. **Til hljódfærameistarans med lagi: fordjarfa ekki. Huggunarljód Davíds.** 2. Er réttvísin þá algjørlega þøgnud? svo talid þó; dæmid med sannsýni, þér mannanna børn! 3. Í hjartanu ydkid þér rángindi, í landinu vegid þér ydar handa ofbeldi. 4. Gudi ókunnugir (fráleitir) eru þeir ógudlegu frá módurlífi. Lygarar fara vilt frá módurlífi. 5. Eytur hafa þeir sem høggorms eytur, þeir eru sem heyrnarlaus ígull, sem apturbyrgir sín eyru, 6. og heyrir ekki raust tøframannsins, ellegar særíngamannsins, sem er útlærdur í því ad særa. 7. Drottinn! sundurbrjót tønnurnar í þeirra munni, sundurmola, Drottinn! jaxlatennur þeirra úngu ljónanna. 8. Lát þá burtfljóta sem vatn er eydist, þegar þeir spenna bogann med ørvunum, lát þessar vera sem oddlausar. 9. Lát þá verda sem snýgil sem sundurleysist í því hann geingur, einsog konu ótímabært fóstur, sem aldrei sjer sólina. 10. Fyrrenn ydar pottar kénna þyrnanna svo snøgglega, sem logandi, er þeim burtu svift b). 11. Sá rádvandi mun fagna þá hann sjer hefndina, hann mun þvo sína fætur í blódi hinna ógudlegu. 12. Og hvør madur skal segja: sá rádvandi hefir þó ávøxt, sá Gud er þó til sem dæmir á jørdu.

## 59. Sálmur.

Bæn um frelsi frá óvinum. Traust á Gudi.

1. **Til hljódfærameistarans, med lagi: fordjarfa ekki. Davíds huggunarljód, þá Sál sendi og lét vakta húsid, til ad drepa hann c).** 2. Minn Gud! frelsa mig frá mínum óvinum, gjørdu mig óhultan fyrir þeim sem rísa móti mér! 3. Frelsadu mig frá þeim ránglátu, bjargadu mér frá þeim blódþyrstu. 4. Því sjá! Drottinn! þeir umsitja mitt líf, þeir sterku safnast á móti mér, án saka, án þess eg hafi brotid, 5. án þess eg hafi brotid hlaupa þeir og búa sig út, vakna þú, ad mæta mér, og sjá! 6. Drottinn! Gud herskaranna, Gud

V. 1. *a.* 1 Sam. b. 22, 1. 24, 4. V. 10. *b.* Sjá Dómb. 9, 14. 15. V. 1. *c.* 1 Sam. 19, 11.

Ísraels! vakna þú og vitja allra þjóða, vægðu eingum af þessum svikafullu misgjørðamønnum. (Málhvíld). 7. Þeir komi á kvøldin og góli sem hundar, og hlaupi umkríng stadinn! 8. Sjá! þeir úthella vondsku af sínum munni, sverð eru á þeirra vørum, því (þeir hugsa) hvør heyrir það?

9. En þú, Drottinn! þú hlær að þeim, og gjørir gis að øllum þjóðum. 10. Mót þeirra makt, held eg mig til þín, því Guð er mitt vígi. 11. Guð minnar miskunar verður fyrri til að hjálpa, (en eg bið) Guð! lát mig sjá mína óvini auðmýkta! 12. Sláðu þá ekki í hel, að mitt fólk ekki gleymi því! rektu þá burt með þinni makt, og steyp þú þeim, Drottinn vor skjøldur! 13. Syndir þeirra munns, eru orð þeirra vara, lát þá fángast í þeirra drambsemi, vegna þeirra formælínga og lyga sem þeir tala, 14. afmá þá í þinni reiði, afmá þá gjørsamlega svo þeir viti að Guð er sá sem drottnar í Jakob, já, allt til jarðarinnar enda. (Málhvíld). 15. Lát þá koma aptur á kvøldin og góla sem hunda, og hlaupa umkríng stadinn. 16. Lát þá flakka híngað og þángað eptir fæðu, og lát þá møgla, þegar þeir ekki verða mettir. 17. En eg, eg vil sýngja um þinn styrkleika, og fagna á morgnana yfir þinni miskunsemi, því þú ert mitt vígi og hæli á minnar neyðar degi. 18. Minn styrkur! þér vil eg sýngja lof, því Guð er mitt vígi, Guð minnar miskunar.

## 60. Sálmur.

Bæn og von um sigur.

1. Til hljóðfærameistarans. Huggunarljóð Davíðs til lærdóms. 2. Þá hann stríddi við Sýrlendska frá Mesópótamíu og Soba, og þá Jakob kom til baka, og vann 12000 Edomita í Salt-dalnum. 3. Guð! þú útskúfaðir oss, þú tvístraðir oss, og reiður varstu. Kom þú aptur til vor! 4. Þú létst jørðina nøtra og rifna, lækna þú hennar sprúngu, því hún skélfur. 5. Þú létst þitt fólk kénna á hørðu, þú gafst oss vín að drekka, svo að oss reikaði. 6. Géf þeim sem þig óttast, merki til að hefja upp, fyrir þíns sannleika sakir, (Málhvíld). 7. Svo þínir elskuðu verði losaðir, hjálpa með þinni hægri hendi, og bænheyr oss!

8. Guð talaði í sínum helgidómi, þar fyrir gleð eg mig. Eg vil skipta Sikem, og Súkotsdal vil eg mæla. 9. Gílead heyrir mér til, Manasse á eg, og Efraim er mín høfuðprýði. Júda er minn løggjafi. 10. Móab er mitt þvotta kér. Í Edom kasta eg mínum skóm. Filistea land, fagna þú yfir mér.

11. Hvør mun flytja mig í þá rambyggilegu borg? hvør mun leiða mig til Edom? 12. Viltu ekki, ó Guð! sem útskúfaðir oss? viltu ekki, ó Guð! fara út með vorum her? 13. veit þú oss fulltíngi í neyðinni! því manna hjálp er ónýt. 14. Með Guðs hjálp munum vér hreystiverk vinna; og hann mun niðurtroða vora óvini.

V. 2. 2 Sam. 8 1. 13. 10, 13. 8, 1 Kron. 18, 3. 12.

## 61. Sálmur.

Bæn í útlegð.

1. Til hljóðfærameistarans á hljóðfæri. Ljóð Davíðs. 2. Heyr þú, Guð! mitt kall, og hygg að minni bæn. 3. Frá landsins enda kalla eg til þín, þegar mitt hjarta vanmegnast, flyt þú mig uppá þann klett sem annars væri mér of hár.

4. Því þú ert mitt hæli, sterkur kastali gégn mínum óvinum. 5. Lát mig búa í þínu tjaldi eilíflega, flýa undir þinna vængja skjól! (Málhvíld). 6. Því þú, ó Guð! munt heyra mín heit, og géfa þeim eign sem óttast þitt nafn. 7. Bæt þú døgum við Kóngsins daga, hans

ár séu frá kyni til kyns. 8. Ad hann meigi sitja eilíflega fyrir Guds augliti. Lát miskun og sannleika vardveita hann. 9. Svo vil eg sýngja lof þínu nafni eilíflega, þá eg greidi mín heit dag eptir dag.

## 62. Sálmur.

Traust ens adþreyngda.

1. Til hljódfærameistarans, fyrir Jedútún. Sálmur Davíds. 2. Guds eins bídur mín sál í kirrþei, frá honum kémur mitt frelsi. 3. Hann einn er mitt bjarg og mitt frelsi og mitt vígi, svo eg skal ekki mikid bifast! 4. Hvørsu leingi midid þér allir á einn mann, viljid hann sundurmerja, einsog vegg sem hallast, eins og múr sem nidurbrotinn verdur? 5. Þeir hugsa ad eins um ad hrinda honum nidur frá hans hæd. Þeir hafa gédþekkni á lýgi, þeir blessa (tala fagurt) med munninum og formæla í hjartanu, (málhvíld). 6. Mín sál! vertu samt kyrrlát fyrir Gudi, því frá honum kémur mín von. 7. Hann einn er mitt bjarg og frelsi, mitt vígi, eg mun ekki bifast! 8. Hjá Gudi er mitt frelsi og heidur, bjarg míns styrkleika, Gud er mitt hæli! 9. Reiddu þig ætíd á hann mitt fólk! útausid ydar hjarta fyrir hans augliti, Gud er vort hæli. 10. Mannanna børn eru ekkért, tál (eru) þeir daudlegu, á metaskálinni reynast þeir léttari enn hégómi, 11. reidid ydur ekki á ofbeldid, og setid ekki ónýta von til rángfeinginna audæfa, aukist ydar audur þá snúid ekki hjartanu þar ad. 12. Eitt ord hefir Gud talad, já, tvø hefi eg heyrt: ad styrkurinn tilheyri Gudi, 13. og þér, Drottinn! tilheyri miskunsemin. Því þú géldur sérhvørjum eptir hans verkum.

## 63. Sálmur.

Laungun til Guds og helgidómsins.

1. Sálmur Davíds. Þá hann var í Júdæu eydimørk. 2. Drottinn, þú ert minn Gud! þín leita eg árla, mína sál þyrstir eptir þér, mitt hold lángar til þín, eins og þurrt og ørmagnandi land, hvar ekkért vatn er. 3. Þá mæni eg til þín í helgidóminum, ad eg sjái þinn veg og þína dýrd. 4. Því þín miskun er betri enn lífid, mínar varir skulu prísa þig, 5. eg lofa þig þá daga mína lífs; í þínu nafni upplypti eg mínum høndum. 6. Einsog af feitri máltíd mun mín sál mettast, og med fagnandi vørum minn munnur lofa þig. 7. Þegar eg minnist þín á minni sæng, eg hugsa til þín í þeirri laungu næturvøku, 8. því þú ert mín hjálp og undir skugga þinna vængja fagna eg. 9. Mín sál hángir vid þig, þín hægri hønd stidur mig. 10. En þeir sem vilja afmá mitt líf, þeir munu sjálfir komast nidur í jardarinnar dýpt. 11. Þeim mun verda tvístrad med sverdi. Þeir munu verda refanna hlutskipti. 12. En Kóngurinn mun gledjast í Gudi, og hvør sem vid hann sver, mun hælast um, þegar þeirra munnur, sem tala lýgi, verdur apturbyrgdur.

## 64. Sálmur.

Bæn móti óvinum.

1. Til hljódfærameistarans. Sálmur Davíds. 2. Heyr, ó Gud! mitt kvein, vardveit mitt líf, fyrir óvinanna ógn! 3. Fel þú mig fyrir hóp hinna vondu, fyrir samblæstri þeirra ránglátu, 4. sem hvetja sína túngu sem sverd og mida sínum ørvum, heiptar ordum, 5. ad þeir hæfi þann rádvanda leynilega, þeir skjóta snøgglega á hann og hrædast þad ekki. 6. Þeir stadfesta sig í sínu vonda athæfi, þeir rádgast um ad leggja snørur, og segja: „hvør gétur séd þær?" 7. Þeir ígrunda hrekki og framkvæma þad sem þeir hafa ígrundad og sérhvørs innsta hjarta er vandlega lokad. 8. En Gud mun skjóta þá, skjót ør mun verda þeirra eydilegging. 9. Sérhvørn þeirra mun þeirra eigin túnga fella, flýa munu allir þeir sem á þá líta. 10.

Allir menn munu hræddir verda og kunngjøra Guds verk, og vidurkénna ad þetta er Guds verk. 11. Sá rádvandi mun gledjast í Drottni og reida síg á hann, og allir, af hjarta hreinskilnir, munu umhælast!

## 65. Sálmur.

Guds gjædska og veldi.

1. Til hljódfærameistarans. Lofsálmur Davíds. 2. Þú, ó Gud! átt skilid trúnadartraust og lofsaung á Síon! þér skulu heitin greidast. 3. Þú ert sá sem heyrir bænir, til þín skal allt hold koma. 4. Syndasektin er ordin mér ofþúng, fyrirgéf þú vorar yfirtrodslur. 5. Sæll er sá sem þú útvelur, og lætur koma nálægt þér, svo hann megi búa í þínum forgardi. O! metta oss med unadsemd þíns húss, þíns helga musteris. 6. Dásamlega svarar þú oss í nád, vors frelsis Gud! þú sem ert hæli allra þeirra er búa vid jardarinnar enda, ellegar lángt í burtu vid hafid.

7. Hann festir fjøllin med sínum krapti og umgirdir síg med mætti. 8. Hann stødvar hafsins ólgu, bylgnanna ædi og fólksins buldur. 9. Og þeir sem búa á útkøntunum, óttast þín teikn. Þú lætur allt fagna sem útgeingur, bædi kvøld og morgna. 10. Þú heimsækir jørdina og audgar hana. Þú gjørir hana mikid ríka. Guds lækir eru fullir af vatni. Korn tilbýr þú mønnunum til handa, þegar þú svoleidis hefir undirbúid hana, 11. vøkvad hennar plógfør, jafnad hennar akurreinar, bleitt hana med regn-skúrum, blessad hennar gróda! 12. þú krýnir árid med þinni blessan, og þín fótspor drjúpa af feiti, 13. beitilandid í eydimørkinni er feitt og hædirnar eru føgnudi umgirtar. 14. Sléttlendid er þakid fénadi, og dalirnir eru þaktir med korni, allt fagnar og sýngur.

## 66. Salmur.

Þakklæti fyrir hjálp.

1. Lofsaungur handa hljódfærameistaranum. 2. Øll jørdin fagni fyrir Gudi, sýngid lof til dýrdar hans nafni, vídfrægid hans lof! 3. Segid vid Gud: hvørsu undarleg eru þín verk? vegna þinnar miklu maktar munu þínir óvinir smjadra fyrir þér. 4. Øll jørdin mun tilbidja þig og sýngja þér lof, þeir munu sýngja lof þínu nafni, (málhvíld). 5. Komid híngad og sjáid Guds undur, furdanleg eru hans verk medal mannanna barna! 6. Hann gjørdi hafid ad þurrlendi, yfir ána geingu þeir á fæti, þá gløddumst vér í honum. 7. Hann drottnar med sínu veldi eilíflega, hans augu vakta þjódirnar ad þeir baldstýrugu ekki skuli upphefja síg, (málhvild). 8. Þér fólk! lofid vorn Gud, og látid lofgjørdina heyrast, 9. sem hélt vorri sálu vid lífid, og lét ekki vorn fót veiklast. 10. Því þú hefir prófad oss, ó Gud! þú hefir hreinsad oss, eins og silfur verdur hreinsad. 11. Þú hefir leidt oss í netid, þú hefir lagt oss byrdi á bak. 12. Þú hefir látid einn mann rída oss á høfdi, vér komum í eld og vatn, en þú útleiddir oss, svo vér skyldum hressast.

13. Því vil eg med brennifórn gánga í þitt hús; 14. eg vil greida mitt heit, eins og mínar varir lofudu og minn munnur taladi, þá eg var í ángist, 15. feitar brennifórnir skal eg færa þér, hrúta med reykelsi, nautum og høfrum skal eg offra. 16. Komid! hlustid til! eg skal segja frá, øllum ydur sem óttist Gud, hvad hann hefir gjørt fyrir mig. 17. Til hans kalladi eg med mínum munni, og vegsama hann nú med minni túngu. 18. Hefdi eg haft ránglæti í mínu hjarta, svo mundi Drottinn ekki hafa heyrt mig, 19. en Gud hefir heyrt til mín, hann gaf gaum ad raust minnar bænar, 20. lofadur veri Gud sem ekki burtskúfadi minni bæn, og ekki dróg sína miskun í hlé vid mig.

## 67. Sálmur.

Lofgjørd Drottins.

1. Til saungmeistarans, á hljódfæri.

Lofsaungur. 2. Gud veri oss miskunsamur og blessi oss, hann láti sitt audlit lýsa yfir oss. (Málhvíld). 3. Ad vér meigum þekkja þinn veg á jørdunni, og þitt frelsi medal allra þjóda. 4. Þig prísar fólkid, ó Gud! já, þig prísar allt fólk; 5. þjódirnar gledja sig og fagna. Því þú dæmir þjódirnar med réttvísi, og jardarinnar þjódum stýrir þú. 6. Þig prísa þjódirnar, ó Gud! já, þig prísar allt fólk. 7. Landid gefur sinn gróda, Gud vor Gud blessar oss. 8. Já, Gud blessar oss, og øll jardarinnar endimørk óttast hann.

## 68. Sálmur.

Sigur ljód.

1. Til hljódfærameistarans. Lofsaungur. 2. Gud taki sig upp, hans óvinir tvístrist, og þeir sem hann hata, flýi fyrir hans augliti. 3. Eins og reykurinn burtrekst, muntu burtreka þá, sem vax brádnar fyrir eldi, munu þeir ógudlegu tortínast fyrir Guds augliti. 4. En þeir rádvøndu munu gledjast, þeir munu fagna og gledjast fyrir Guds augliti. 5. Sýngid Gudi lof! vegsamid hans nafn! greidid hans veg, þá hann fer um eydimerkurnar! Drottinn er hans nafn, gledjid ydur fyrir hans augliti. 6. Gud er í sínum heilaga bústad, fadir fødurlausra, og vernd ekknanna. 7. Gud lætur þá útlægu búa í húsinu (sinna fedra), og útleidir þá faungudu til nægta, en þeir þverbrotnu búa í þurru landi.

8. Gud! þegar þú fórst undan þínu fólki, þegar þú gékkst fram um eydi stadi (Málhvíld), 9. þá skalf jørdin, og himininn draup fyrir Guds augliti, já, Sínaí fyrir Guds, fyrir Ísraels Guds augliti. 10. Ríkuglegt regn gafst þú, þinn arf (erfda fólk), þann þreitta, stadfestir þú. 11. Þínir skarar settust ad í landinu, sem þú, ó Gud! af þinni gjæsku hafdir aumíngjunum fyrirbúid. 12. Drottinn lætur þeirra tal hljóma, sem boda Sigurinn, í þeim mikla her. 13. „Herskaranna Kóngar flýa, þeir flýa og húsmódirin (hússins prýdi) útbýtir herfángi. 14. Þegar þér liggid í milli hjardanna, þá eru dúfu vængirnir þaktir af silfri, og hennar fjadrir pentadar gulli. 15. Þegar sá almáttugi tvístradi Kóngunum í landinu, var þad snjó hvítt eins og Salmon". 16. Þér Guds fjøll! Basans fjøll, þid fjøll med mørgum tindum, Basans fjøll! 17. Hvar fyrir lítid þér fjøll med mørgum tindum, øfundsamlega til þess fjallsins, hvar Gudi þóknadist ad búa? Drottinn mun þó búa þar eilíflega. 18. Guds vagnar eru tvisvarsinnum tíu þúsund, já, þúsund og aptur þúsund. Drottinn er medal þeirra, eins og á Sínaí í helgidóminum. 19. Þú stígur upp á hædina, hefir fánga med þér, tekur vid gáfum af mønnum, jafnvel þeir þverbrotnu, skulu búa hjá þér, Drottinn Gud!

20. Lofadur sé Drottinn dag eptir dag! þó hann leggi á oss byrdi, er Gud vor hjálp. (Málhvíld). 21. Þessi Gud er oss frelsis Gud, og Drottinn vor Herra er frelsun frá daudanum. 22. En Gud mun sannarlega merja høfud sinna óvina, hvirfil þeirra sem áfram halda í þeirra syndum. 23. Drottinn segir: frá Basan vil eg færa þá, flytja þá frá djúpi sjáfarins. 24. Svo þinn fótur meigi vada í blódi, og túngur þinna hunda sleika þad úr óvinunum.

25. Þeir sáu þína inngaungu, ó Gud! míns Guds, míns Kóngs inngaungu í helgidóminn. 26. Á undan geingu saungvararnir, þar eptir þeir sem spiludu á hljódfæri midt á medal meyanna sem slóu trumbur. 27. Lofid Gud í søfnudinum, lofid Drottinn þér sem komnir erud af Ísrael! 28. þarna er Benjamín, sá ýngsti sem drottnar, Júdæu furstar med sínum hópum. Sebúlons furstar, Neftalí furstar. 29.

Þinn Gud býdur þér (Israel), ad þú sért sterkur, styrk oss, ó Gud! eins og þú hefir gjört, 30. frá þínu musteri í Jerúsalem! Kóngarnir skulu færa þér gáfur. 31. Avíta þú dýrid í reirnum, uxanna flokk og fólksins kálfa a), ad þeir gefi sig upp med sínum silfur-peníngum. Tvístra fólkinu sem hefir lyst til stríds. 32. Stórfurstar munu koma frá Egyptalandi, Mórland mun skjótt útrétta sínar hendur til Guds; 33. þér ríki jardarinnar, sýngid fyrir Gudi, fagnid fyrir Drottni, 34. þeim sem fer yfir hinna gømlu himin-himna; sjá! hann sendir sína raust, þá voldugu raust. 35. Géfid Gudi heidurinn, hans hátign er yfir Israel, og hans makt í skýunum. 36. Ottalegur ertu, ó Gud! í þínum helgidómi. Israels Gud géfur fólkinn makt og styrk. Lofadur veri Gud!

## 69. Sálmur.

*Bæn móti óvinum.*

1. Til hljódfærameistarans á lilju hljódfæri. Af Davíd. 2. Gud! frelsa mig, því vatnid þreyngir sér innad sálunni. 3. Eg er sokkinn nidur í djúpt botnlaust forædi, hvar eingin fótfesta er, eg er kominn í mikid djúpt vatn og straumurinn geingur yfir mig. 4. Eg er þreittur af ad hrópa, minn barki er hás, mín augu daprast í því eg bíd míns Guds. 5. Þeir eru fleiri enn hárin á mínu høfdi, sem mig hata án saka. Voldugir eru mínir óvinir sem leitast vid ad afmá mig án orsaka; eg á ad borga þad sem eg ekki rænti. 6. Gud þú þekkir mína heimsku og mín synd er þér ekki hulin. 7. Lát þá ekki sneipast af því ad sjá mín kjør sem bída þín. O Drottinn herskaranna! lát þá ekki vanvirdast fyrir mína skuld, sem leita þín, Israels Gud! 8. Því vegna þín ber eg hádúng, sneipa þekur mitt andlit. 9. Eg er ordinn framandi hjá mínum brædrum, og ókunnugur børnum minnar módur. 10. Vandlæti fyrir þitt hús eydileggur mig og smán þeirra sem þig smána, lendir á mér. 11. Þegar eg grét og fastadi, var gjørt gis ad mér. 12. Þegar eg íklæddist sekk, vard eg þeim ad athlátri (ad ordskvid). 13. Þeir sem sitja í portinu tala um mig, og þeir kveda um mig, sem drekka áfeingan drikk. 14. En eg flý med mína bæn til þín, Drottinn! lát hana vera þér þókknanlega, ó Gud! eptir þinni mikilli miskunsemi. Bænheyr þú mig eptir trúfesti þíns frelsis. 15. Frelsa þú mig úr feninu, ad eg ekki søkkvi. Láttu mig losna frá mínum hatursmønnum, og úr því djúpa vatni. 16. Láttu ekki vatnsfallid gánga yfir mig, og ekki hylinn svelgja mig, og ekki pittinn apturljúkast yfir mér. 17. Bænheyr mig, Drottinn! því þín miskun er mikil, snú þínu augliti til mín, eptir mikilleik þinna miskunsemda. 18. Hyl ekki andlit þitt fyrir þjóni þínum, því eg er í ángist, flýttu þér! bænheyrdu mig! 19. Vertu nálægt minni sálu, endurleis hana! frelsa mig fyrir minna óvina sakir. 20. Þú veitst mína smán og skømm og hádúng, allir mínir mótstødumenn eru þér opinberir. 21. Hádúngin kremur mitt hjarta, eg dey; eg vænti medaumkunar, en hún er ekki til, huggunar, en eg finn einga. 22. Þeir géfa mér gall ad eta, og ef mig þyrstir, géfa þeir mér edik ad drekka.

23. Þeirra matbord verdi þeim ad snøru, og þeirra fridur ad gildru. 24. Lát þeirra auga daprast, ad þeir ekki sjái, og þeirra lendar ætíd vera óstirkar. 25. Utaus þinni brædi yfir þá, og lát ákéfd þinnar reidi ná þeim. 26. Þeirra hallir verdi í audn, og eingin búi í þeirra tjaldbúdum! 27. Því þeir ofsækja þann sem þú hefir slegid, og auka þess þínu

V. 31. *a.* (Volduga og vesæla).

sem þú hefir sært. 28. Lát þá bæta sekt á sekt, og ekki komast til þíns réttlætis! 29. Lát þá verda afmáda af lífsins bók, og ekki innskrifast medal þeirra rádvøndu. 30. En mig sem er aumur og harmþrúnginn, mig upphefji þitt frelsi, ó Gud! 31. Þá mun eg lofa Guds nafn med saung, og vegsama hann med þakkargjørd. 32. Þad gédjast Drottni betur enn uxi, betur enn naut med hornum og klaufum. 33. Hinir aumu sjá þad og gledja síg; og þér sem leitid Guds, ydar hjarta skal lifna vid. 34. Því Drottinn heyrir þá fátæku, og sína fánga fyrirlítur hann ekki. 35. Himin og jørd skal lofa hann, og allt sem úir og grúir þar inni. 36. Því Gud mun frelsa Síon, og uppbyggja Júdæu borgir, ad menn búi í þeim og eigi þær, og nidjar hans þénara skulu erfa. 37. Þær, og þeir sem elska hans nafn, skulu búa þar.

## 70. Sálmur.

Bæn móti óvinum.

1. Til hljódfærameistarans, af Davíd til endurminningar. 2. Gud! kom þú ad frelsa mig! Drottinn! hrada þú þér mér til hjálpar. 3. Láttu þá sneipast og skammast sín, sem sitja um mitt líf! lát þá hørfa til baka og verda til skammar sem vilja mér íllt! 4. Lát þá med sneipu hørfa til baka sem hrópa til mín: hó! hó! 5. þá fagna og gledjast í þér, allir sem þín leita. Þeir sem girnast þína hjálp, og segja ætíd: mikill er Gud. 6. Eg er aumur og fátækur. Gud flýttu þér til mín, þú ert mín hjálp og minn Frelsari, Drottinn! tef þú ekki.

## 71. Sálmur.

Bæn móti óvinum.

1. Á þig Drottinn treysti eg, lát mig aldrei til skammar verda! 2. frelsa mig fyrir þitt réttlæti og losa mig, hneig þitt eyra til mín og hjálpa mér. 3. Vert þú mér klettavígi sem eg géti ætíd flúid í. Þú hefir mér lofad lidsemd, því þú ert mitt bjarg og borg. 4. Minn Gud losa þú mig úr hendi hins ógudlega, úr þess hendi sem er ránglátur og undirþrikkir; 5. því þú ert mitt traust Drottinn, Drottinn! þú ert mín von frá mínu úngdæmi. 6. Á þig reiddi eg mig stadfastlega frá módurlífi, þú dróst mig út af lífi minnar módur, um þig er ætíd minn lofsaungur. 7. Eg er mørgum sem vidundur, en þú ert mitt styrktar traust.

8. Minn munnur er fullur af þínu losi, hvørn dag af þinni vegsemd, 9. útskúfa mér ekki í minni elli og yfirgéf mig ekki þá eg hrørna. 10. Því mínir óvinir tala á móti mér, og þeir sem sitja um mitt líf, þeir bera saman sín ráð, 11. og segja: Gud hefir yfirgéfid hann; eltid hann og grípid, einginn bjargar honum. 12. Gud vertu ekki lángt frá mér, minn Gud! flýttu þér ad hjálpa mér. 13. Láttu þá sneypast og afmást, sem sitja um mitt líf, láttu þá þekjast hádúng og hneisu, sem leita minnar ógjæfu. 14. En eg vil ætíd vona, og aldrei hætta ad vegsama þig. 15. Minn munnur skal segja frá þínu réttlæti, hvørn dag frá þínu hjálprædi, því eg veit einga ¦ tølu (þará). 16. Eg vil inngánga (í musterid) med míns herra, Drottins lofgjørd, eg vil ad eins hrósa þínu réttlæti. 17. Gud þú hefir mentad mig frá barndómi, og inn til þess nú kunngjøri eg þínar dásemdir. 18. En yfirgéf mig þá ekki, ó Gud! í ellinni gráhærdann, þángad til eg fæ kunngjørt þinn mátt þessari kynslód, og þinn krapt allri þeirri sem koma mun. 19. Því þitt réttlæti nær, ó Gud! í hædina, þú Gud hefir gjørt mikla hluti; 20. hvør er sem þú? þú hefir látid mig sjá marga raun og ólukku, endurlífga mig aptur, og drag mig upp aptur úr jardarinnar afgrunni, 21. gjør þú mig mikid stóran, og umkríngdu mig med hugg-

un, 22. svo mun eg ogsvo þakka þér með hørpú hljóm fyrir þína trúfesti, minn Guð! Eg skal spila fyrir þér á hørpu, þú Israels heilagi. 23. Mínar varir skulu fagna þegar eg leik á hljóð=færi fyrir þér, og mín sál sem þú hefir endur=leyst; 24. líka skal mín túnga tala daglega þitt réttlæti, því þeir verða vanvirtir og meiga skamm=ast sín, sem leita minnar ólukku.

## 72. Sálmur.

Lukku óskir Konúnginum.

1. Fyrir Salómon eða: af Salómon. Guð! géf Konúnginum þína dóma, og Kóngsins syni þitt réttlæti! 2. þá dæmir hann þitt fólk með réttvísi, og þína aumu með sannsýni. 3. Láttu fjøllin og hæðirnar færa frið fólkinu fyrir réttlætið. 4. Hann mun útvega þeim aumu rétt, meðal fólksins, hann mun frelsa børn hins fátæka og sundurmerja ofbeldis manninn; 5. Menn munu óttast þig svo leingi sem sólin skín, og túnglið er til, frá kyni til kyns, 6. hann mun niðurkoma sem døgg yfir slegna velli, sem drop=ar, er væta jørðina. 7. Á hans døgum mun sá réttláti blómgast, og mikill friður (vera) þáng=að til túnglið er ei meir. 8. Hann mun ríkja frá hafi til hafs, og frá ánni til landsins enda. 9. Honum skulu þeir lúta sem búa í eyðimørk=inni, og hans óvinir munu duptið sleikja. 10. Kóngarnir í Tarsis og Eyonum, munu koma með gáfur, Kóngarnir af Seba og Sebóa munu fram=bera skeinki, 11. já, allir Kóngar munu honum lúta, allar þjóðir honum þjóna. 12. Því hann frelsar hinn fátæka sem kallar eptir hjálp, og þann auma sem hefir eingann hjálpar mann. 13. Hann mun vægja lítilmagnanum og þeim volaða, og bjarga lífi hinna snauðu, 14. frá vélum og ofríki mun hann frelsa þeirra sálir, og honum mun vera dírmætt þeirra blóð. 15. Og hann skal lifa, og menn skulu géfa honum gull frá Sabea, og biðja ætíð fyrir honum, vegsama hann daglega. 16. Kornið mun standa þétt í landinu, á fjalla tindum, í ávøxtunum mun hvína sem í Líbanon skógi, og menn í støð=unum uppvaxa sem gras sprettur upp af jørðu. 17. Hans nafn skal verða eilíft, svo leingi sem sólin skín mun hans nafn ná til eptirkomend=anna, fyrir hann munu allar þjóðir blessast og prísa hann sælann.

18. Lofaður veri Guð, Drottinn Israels Guð! hann sem einn gjørir dásemdarverkin, 19. og lofað sé nafn hans dýrðar að eilífu. Øll jørðin fyllist af hans dýrð, Amen, já, Amen. 20. Endir Davíðs, Isai sonar, bæna.

# Þriðja Bók.

## 73. Sálmur.

Kjør guðhræddra og guðlausra.

1. Sálmur Asafs. Já góður er Guð við Israel, við þá hreinhjørtuðu. 2. En — það vantaði lítið á að mínir fætur beigðu af leið, lítið á, að mér skrikaði fótur. 3. Því eg øfundaði þá drambláta þegar eg sá velgeingni hinna óguðlegu. 4. Því allt til dauðans hitt=ir þá ekkért mótlæti, og líkami þeirra er vel mettaður; 5. í mæðu rata þeir ekki eins og aðr=ir menn, og plágast ekki eins og aðrir dauðlegir. 6. Þeirra hálskeðja er því drambsemi, og of=beldi bera þeir á sér eins og skart. 7. Þeirra andlit er uppbólgið af fitu, þeirra hjartans hugsanir komu djarflega fram. 8. Þeir hæða, og kunngjøra undirþrikking í sinni vondsku, frá hæðinni tala þeir niður fyrir sig. 9. Þeir hefja sinn munn mót himninum, og þeirra túnga fer yfir jørðina. 10. Því snýr fólk sér þar að, og bikarar fullir af vatni tæmast af þeim. 11. Og

þeir segja: hvørninn skyldi Gud vita þad? er þekkíng hjá þeim ædsta, ɔ: (um þad sem skéd- ur á jørdu). 12. Sjá þessa ógudlegu! þó auka þeir í eilífri ró sitt góts.

13. Forgéfins hreinsadi eg sannarlega mitt hjarta, og þvodi mínar hendur í sakleysinu, 14. þared eg plágast daglega, og mitt straff er til reidu á hvørjum morgni. 15. Segdi eg: eg skal tala sem hinir, sjá! þá steypta eg í ógjæfu kyni þinna barna, 16. og eg ígrundadi til ad skilja þetta, en þad var mér erfidt, 17. þángad til eg gékk inní Guds helgidóm, og gaumgjæfdi þeirra af- drif. 18. Sannarlega setur þú þá á hálku, þú lætur þá falla nidur í grunn. 19. Hvørsu sviplega eydileggjast þeir! þeir fyrirfarast, þeir taka enda med skélfíngu. 20. Eins og draum- ur þá madur er vaknadur, svoleidis munt þú, Drottinn! þegar þú vaknar, fyrirlíta þeirra mynd.

21. Þegar mitt hjarta ángradist, og eg fann stíng í mínum nýrum, 22. þá var eg heimskíngi og skynjadi ekkért, eg var sem skyn- laus sképna fyrir þér. 23. Þó var eg þér sí- feldt trúr, þú héldst mér vid þína hægri hønd. 24. Med þínu rádi muntu leida mig, og þar eptir upptaka mig til dýrdar. 25. Hvørn hef eg í himninum? og jafnt vid þig, gledst eg vid ekkért á jørdunni. 26. Þó ad minn líkami og hjarta vanmegnist, ertu samt, Gud! alla tíma mitt hjartans traust og hlutskipti. 27. Því sjá þú! þeir sem víkja frá þér munu fyrirfar- ast. Þú afmáir alla þá sem þér eru ótrúir. 28. Mér er þad føgnudur ad vera nálægt Gudi. Á Drottinn set eg mitt traust, svo ad eg segi fra øllum hans verkum.

## 74. Sálmur.

Bæn þá musterid var eydilagt.

1. Kénnsluljód af Asaf. Hvar fyrir, ó Gud! þú útskúfar (oss) eilíflega? hvar fyrir brenn- ur þín reidi yfir hjørd þíns haglendis? 2. Minnstu þess safnadar sem þú fordum útvegadir þér! þinnar erfda kynkvíslar er þú fríadir, Síons fjalls, hvará þú bjóst. 3. Kom þú ad sjá þá ævarandi eydileggíngu! allt skémmir óvinur- inn í helgidóminum. 4. Þínir óvinir grenja midt í þinni samkundu og setja sína sidi fyrir sidi. 5. Óvinurinn sjest hefja øxina hátt á móti trésins samangrónu greinum. 6. Og þad sem þarí var grafid, sundurslá þeir med breidøxum og hømrum. 7. Þeir kasta eldi í þinn helgidóm, þeir fella þíns nafns bústad, allt ad jørdu. 8. Þeir segja í sínu hjarta: látum oss eydileggja þá alla. Þeir uppbrenna øll Guds samkomu-hús í landinu. 9. Vora sidi sjáum vér ekki, þar er einginn Spámadur framar, einginn á medal vor sem veit: hvørsu leingi.

10. Hvørsu leingi, ó Gud! skal mótstødu- madurinn forsmá? skal óvinurinn forakta þitt nafn eilíflega? 11. Því dregur þú þína hønd, þína hægri hønd til baka. Dragdu hana út úr barminum! eydilegdu! 12. Gud er minn Konúngur frá fyrri tídum, sem útvegadi mikid frelsi allri jørdunni. 13. Þú adskildir hafid med þínum styrk, þú sundurbrautst í vatninu óvættanna høfud. 14. Þú mardir krókodíl- anna høfud, og gafst þá fólkinu í eydimørk- unni til fædu. 15. Úr bjargskorum framleidd- ir þú læki og uppsprettur, og uppþurkadir miklar ár. 16. Þér tilheyrir dagurinn, þér nóttin. Þú hefir fest ljósin og sólina. 17. Þú settir øll takmørk jardarinnar, sumar og vetur bjóst þú til.

18. Minnstu þessa: óvinurinn smánar Drott- inn, og gudlausa þjódin foraktar þitt nafn. 19. Ofurgéf ekki sál þinnar turtildúfu villi- dýrum, og gleimdu ekki ad eilífu auminginna lífi. 20. Líttu á sáttmálann, því landsins af- kimar eru fullir af mordíngjanna bælum. 21.

Lát þann lítilmótlega ei hverfa sneiptann til baka, lát þann sem lídur og hinn fátæka lofa þitt nafn. 22. Rís upp, ó Gud! stattu fyrir þínu máli. Minnstu þeirrar hádúngar sem þér er dag hvørn gjørd af dárunum. 23. Gleimdu ekki hrópi þinna óvina, hávada þinna mótstødumanna, sem stígur æ hærra og hærra.

## 75. Sálmur.

*Þakklæti. Guds réttlætisdómar.*

1. Til saungmeistarans eptir lagi: fordjarfa ekki. Ljód Asafs. 2. Vér þøkkum þér, Gud! vér þøkkum þér, ad þitt nafn er nálægt, menn segja frá þínum dásemdum. 3. „Þegar eg tek minn tíma, dæmi eg rétt. 4. Jørdin skélfur og allir hennar innbyggjarar; eg festi hennar stólpa". (Málhvíld).

5. Þarfyrir segi eg til þeirra dramblátu, drambid ekki; og til hinna ógudlegu: keirid ekki upp ydar høfud! 6. Lyptid ekki hátt upp ydar høfdum, talid ekki svo þverúdarlega! 7. Því hvørki frá austri né vestri, ei heldur frá eydimørkinni kémur upphefdin. 8. En Gud er sá sem dæmir, hann nidurlægir þennan, upphefur hinn. 9. Því bikar er í Drottins hendi med ólgandi víni, vel bløndudu, og þar af skeinkir hann, allt ad dreggjum skulu allir jardarinnar ógudlegir søtra og drekka þad. 10. Eg vil eilíflega kunngjøra þad og sýngja fyrir Jakobs Gudi.

11. „Høfud allra ógudlegra vil eg beigja (afhøggva), en høfud hinna rádvøndu skulu upphefjast".

## 76. Sálmur.

*Þakklæti fyrir sigur.*

1. Til Saungmeistarans á hljódfæri. Lofsaungur Asafs. 2. Alþekktur er Gud í Júdeu, í Israel er hans nafn mikid. 3. Í Salem er hans tjaldbúd, og hans bústadur á Síon, 4. þar sundurbraut hann bogans eldíngar, skjøld, sverd og ønnur stridsverkfæri. (Málhvíld). 5. Dýrdlegur ertu, og vegsamlegri enn ræníngjafjøllin. 6. Þeir dramblátu í hjarta voru rændir og sofnudu til fulls, og einginn af stridsmønnunum gat fundid sínar hendur. 7. Af þinni hótun, Jakobs Gud! féllu í djúpann svefn bædi þeir sem voru á vøgnum og hestum. 8. Óttalegur ertu! hvør gétur stadist fyrir þínu augliti, þegar þú reidist? 9. Frá himni létstu þinn dóm heyra; jørdin skélfdist, og hljódnadi vid, 10. þegar Gud bjó sig til dóms, til ad frelsa þá hógværu á jørdu. (Málhvíld). 11. Því mannanna reidi verdur þér til vegsemdar þegar þú girdist þinni frekustu reidi.

12. Gjørid heit, og greidid þad Drottni ydar Gudi, allir þér sem erud kríngum hann, færid gáfur þeim óttalega. 13. Hann lækkar dramb høfdíngjanna, og er Kóngum jardarinnar óttalegur.

## 77. Sálmur.

*Huggunar Sálmur.*

1. Til hljódfærameistarans, fyrir Jedutuna. Asafs Saungur. 2. Eg hrópa til Guds og bid, eg kalla til Guds, og hann mun leggja vid eyrad. 3. Á mínum mædu degi leita eg Drottins, mín hønd er útrétt á nóttunni, og þreytist ekki; mín sál færist undan huggun. 4. Eg hugsa til Guds og andvarpa, ígrunda, og minn andi vanmegnadist. (Málhvíld). 5. Þú heldur mínum augum vakandi, eg er áhyggjufullur og tala ekki. 6. Eg hugsa til fyrri daganna, og þeirra ára sem fyrir laungu eru lidin. 7. Eg hugsa til míns lofsaungs á nóttunni, og ígrunda í mínu hjarta, minn andi ransakar: 8. ætla ad Drottinn útskúfi þá eilíflega? og hafi aldrei meir velþóknan á oss? 9. Hefir hans miskun ad eilífu fengid enda? bregdast hans fyrirheit frá kyni til kyns? 10. Hefir Gud gleymt sinni nád?

ellegar hefir hann falid sína miskunsemi med reidi? (Málhvíld).

11. Þá sagdi eg: þetta er minn breiskleiki. Í hendi hins ædsta er ad umbreita þessu. 12. Eg vil minnast á verkin Drottins, já! eg skal muna til undranna á fyrri tídum. 13. Eg skal yfirvega øll þín verk og hugsa um þínar framkvæmdir. 14. Ó Gud! heilagir eru þínir vegir, hvør Gud er svo mikill sem (vor) Gud? 15. Þú ert sá Gud, sem gjørir dásemdarverkin? þú hefir kunngjørt þinn mátt medal fólksins. 16. Þú frelsadir þitt fólk med þínum sterka armi, Jakobs og Jóseps børn. 17. Vøtnin sáu þig, Gud! vøtnin sáu þig og bifudust; já! undirdjúpin skulfu. 18. Skýin úthelltu vatni, í himninum tók undir af þrumunum; þínar ørfar flugu. 19. Reidarsløg dunudu í loptinu, eldíngar upplýstu jardríkid, jørdin skalf og nøtradi. 20. Um hafid lá þín leid, og þinn stígur um mikid vatn, og þín spor sáust ekki. 21. Þú leiddir þitt fólk, eins og hjørd med Mósis og Arons hønd.

## 78. Sálmur.

Aminníng.

1. Kénnsluljód af Asaf. Mitt fólk, taktu eptir mínum lærdómi! beigid ydar eyru ad tali minna vara! 2. Eg vil opna minn munn til ljódmæla, eg vil segja frá gømlum atburdum, 3. sem vér høfum heyrt og frétt, og vorir forfedur søgdu oss, 4. vér skyldum ei dylja þá fyrir þeirra børnum, fyrir þeim komandi kynslódum; heldur kunngjøra Drottins stóru vegsemd og hans stirkleik, og þau undur sem hann hefir gjørt. 5. Því hann uppreisti sér vitnisburd í Jakob og setti løg í Ísrael, sem hann baud vorum forfedrum ad kunngjøra sínum børnum; 6. svoad sú kynslód sem sídan kom, þau børn, sem skyldu fædast, gjætu vitad þau, og aptur sagt frá sínum børnum. 7. Ad þau gjætu sett sitt traust til Guds, og ekki gleymt hans verkum, heldur vardveitt hans bodord; 8. og ei ordid sem þeirra fedur, baldin og þverúdarfull kynslód; kynþáttur sem ei stadfesti sitt hjarta, og hvørs andi ekki var tryggur vid Gud.

9. Efraims børn vel útbúnir bogmenn, hørfudu á stridsins degi. 10. Þau héldu ekki sáttmála Guds, og hlíbrudu sér hjá, ad hlýdnast hans løgmáli. 11. Og þeir gleymdu hans verkum og dásemdum er hann hafdi látid þá sjá. 12. Fyrir augum fedra þeirra gjørdi hann kraptaverk í øllu Egyptalandi og á Sóans vøllum. 13. Hann klauf hafid, og lét þá fara þar yfir og hann baud vatninu ad standa sem vegg. 14. Hann leiddi þá á daginn med skýi, og alla nóttina med eldsins skini. 15. Hann í sundurklauf klettana í eydimørkinni, og gaf þeim ad drekka eins og af stórum vatnsføllum. 16. Hann lét læki útrenna af kletti, og lét vatn nidurrenna sem ár. 17. Þó héldu þeir áfram ad syndga gégn honum og egna til þann ædsta í eydimørkinni. 18. Og þeir freistudu Guds í sínu hjarta, þá þeir heimtu mat eptir sínu gédi. 19. og þeir tøludu gégn Gudi; þeir søgdu: ætla Gud géti matbord reidubúid í eydimørkinni? 20. Sjá! hann sló klettinn og þadan flaut vatn, og lækurinn rann, mun hann og géta géfid braud? mun hann géta útvegad sínu fólki kjøt? 21. Þetta heyrdi Drottinn, og hann reiddist, og eldur tendradist mót Jakob, og reidi æstist gégn Ísrael. 22. Því þeir trúdu ekki á Gud, og reiddu sig ekki á hans frelsi, 23. þó ad hann rédi yfir skýunum ad ofan til og upplyki himinsins portum, 24. og léti Manna nidur rigna yfir þá til matar og gjæfi þeim himna fædu. 25. Eingla braud átu þeir, næríngu sendi hann þeim til mettunar. 26. Hann lét austanvind framfara undir himninum, og framleiddi sunnanvedur med sínum styrkleik. 27. Og hann lét kjøti rigna yfir þá, sem riki, og fljúgandi fuglum sem haffins

sandi, 28. og hann lét þessa detta midt í þeirra
herbúdir, allt um kríng, medal þeirra bústada.
29. og þeir átu og urdu mjøgsvo mettir; hann
lét þá fá þad sem þá lysti, 30. þeir høfdu enn
nú ei stýrt sínni gyrnd, maturinn var ennú í
þeirra munni, 31. þá reisti sig Guds reidi gégn
þeim og sló í hel þá sterkustu medal þeirra og
drap Israels únglínga. 32. Aungvu ad síd-
ur syndgudu þeir enn og trúdu ekki á hans
kraptaverk. 33. Þarfyrir lét hann þeirra daga
lída í ónýtíngskap, og þeirra ár í snøgglegri
fordjørfun, 34. Þegar hann sló þá í hel,
leitudu þeir hans, umventu sér og ákølludu
Gud skjótt. 35. Og þeir mintust þess ad
Gud var þeirra bjarg og sá ædsti þeirra End-
urlausnari. 36. En þeir tældu hann med
sínum vørum, og lugu ad honum med sínum
túngum. 37. Og þeirra hjarta hékk ekki fast
vid hann, og þeir voru ekki stødugir í hans
sáttmála. 38. En hann er miskunsamur, fyrirgéfs-
ur syndir og afmáir ekki; heldur stansar sína reidi,
og hleypir ei fram øllu sínu gédi. 39. Hann
minntist þess ad þeir voru hold, og gustur sem
fer og kémur ei aptur. 40. Hvørsu opt egndu
þeir hann til reidi í eydimørkinni og hrigdu
hann í óbygdinni! 41. Því þeir freistudu
Guds á ný, og løstudu þann heilaga Israels.
42. Þeir hugsudu ekki til hans handar, ekki
þess dags þá hann leysti þá úr naudunum.
43. Þá hann gjørdi sín tákn í Egyptalandi,
og sín undur á Sóans vøllum, 44. og snéri
ánum í blód, og þeim rennandi vøtnum, svo
þeir gátu ei drukkid úr þeim.

45. Hann sendi þeim flugur sem bitu þá,
hunda og froska sem skémdu þá. 46. Hann gaf
kornormum þeirra gróda og Eingisprettum,
þeirra erfidi. 47. Hann sló þeirra víntré
med hagli, og þeirra mórberjatré med hreti.
48. Hann ofurgaf nautfénad þeirra haglinu, og
þeirra smáfénad eldíngunum. 49. Hann sendi
móti þeim ákéfd sinnar reidi, heipt, brædi og
þreingíngu, heilann skara af ólukkunnar sendi-
bodum. 50. Hann sleppti lausri sinni reidi,
hann sparadi þá ekki fyrir daudanum, og gaf
þeirra líf drepsóttinni. 51. Og hann deyddi
alla frumburdi í Egyptalandi, og styrkleik hans
frumgróda í hans tjaldbúdum. 52. Og hann
lét sitt fólk þadan fara sem fé, og fór med þá
um eydimørkina, sem hjørd. 53. Hann leiddi
þá óhult, ad þeir ekkért hræddust; en þeirra ó-
vinir fólust í hafinu. 54. Hann leiddi þá til
takmarka síns helgidóms, til þess fjallsins sem
hans hægri hønd hafdi útvegad. 55. Og hann
útrak heidíngjana frá þeim, og mældi þeim út
landid, og lét Israels kynkvíslir búa í þeirra
tjøldum; 56. En þeir freistudu og egndu Gud
til, hinn ædsta, og héldu ekki hans lagasetn-
ínga. 57. Þeir féllu frá og viku af leid
sem þeirra fedur, þeir hrukku til baka sem
svikull bogi. 58. Þeir uppegndu hann med
sínum hædum a), og vøktu hans vandlæti med bí-
lætum afguda sinna. 59. Þá Gud heyrdi þad,
stygdist hann og stuggadi vid Israel næsta mjøg.

60. Því yfirgaf hann sinn bústad í Síló,
þá tjaldbúd hvarí hann hafdi búid medal
mannanna. 61. Og hann lét hertaka sitt
sterka fólk, og afhendti sína dýrd (tjaldbúdina)
í óvina hendur. 62. Og hann lagdi sitt fólk
undir sverdid, og vard gramur sinni arfleifd.
63. Þeirra ýngismenn svalg eldurinn, og mey-
arnar kveinudu ekki yfir því.

64. Þeirra prestar féllu fyrir sverdi, og
þeirra ekkjur grétu ekki. 65. Þá vaknadi
Drottinn eins og af svefni, eins og hetja, er
kémur hress og gladur frá víninu. 66. Og
hann rak sína óvini til baka, og gaf þeim
eilífa smán, 67. þó útskúfadi hann Jóseps
tjaldbúd, og útvaldi ekki leingur Efraims ætt.

V. 58. *a.* (Hvar á afgudir vóru dýrkadir).

68. Heldur útvaldi hann Júda ætt, Síons fjall sem hann elskadi. 69. Og hann bygdi sinn helgidóm, sem þann háa himin, sem jørdina er hann hefir gjørt eilíflega fasta. 70. Og hann útvaldi Davíd sinn þénara og tók hann frá saudhúsunum. 71. Frá umønnun fyrir ánum tók hann hann, til ad vakta Jakob sitt fólk, (halda til haga) og Israel sína arfleifd, 72. og hann vaktadi hana med hreinskilnu hjarta og stýrdi henni med sinni hyggilegu hendi.

## 79. Sálmur.

Bæn móti óvina ædi.

1. Sálmur Asafs. Gud! Heidíngjarnir eru komnir inní þína arfleifd, þeir hafa saurgad þitt heilaga musteri, og gjørt Jerúsalem ad steinhrúgu. 2. Þeir gáfu himinsins fuglum til fædu lík þinna þénara og landsins villudýrum hold þinna gudhræddu. 3. Þeir úthelltu þeirra blódi sem vatni, allt í kríngum Jerúsalem, og þar var eingin sem jardadi þá. 4. Vér erum ordnir ad hádúng hjá vorum nábúum, ad spotti og athlátri hjá þeim sem búa í kríngum oss. 5. Drottinn! hvørsu leingi viltu reidast? mun þitt vandlæti brenna sem eldur eilíflega? 6. Heltu þinni grimd út yfir heidíngjana sem ekki þekkja þig, og þau ríki sem ekki ákalla þitt nafn. 7. Því þeir hafa eydt Jakob, og eydilagt hans bústad.

8. Minnstu ekki á vorar fyrri misgjørdir, hradadu þér! kom þú oss á móti med þína miskun, því vér erum mjøg adþreyngdir. 9. Hjálpa þú oss, Gud, vors frelsis! vegna heidurs þíns nafns, frelsa oss og fyrirgéf oss vorar syndir, fyrir þíns nafns sakir. 10. Hví skyldu heidíngjarnir segja: hvar er nú þeirra Gud? Láttu þad kunnugt verda medal heidíngjanna fyrir vorum augum, ad hefnd komi fyrir úthellt blód þinna þénara; 11. lát kvein fánganna koma fyrir þig, lát þá sem eru daudans børn, fyrir þinn sterka arm, halda lífi. 12. Og gjaldtu vorum nágrønnum sjøfaldt aptur í þeirra skaut, þá forsmán sem þeir hafa lastad þig med, Drottinn! 13. Og vér þitt fólk og hjørd þíns haglendis, munum þakka þér eilíflega; frá kyni til kyns munum vér kunngjøra þitt lof.

## 80. Sálmur.

Bæn um Israels vardveitslu.

1. Til hljódfærameistarans; á Sósannim Edút. Sálmur af Asaf. 2. Heyr þú Israels hyrdir, þú sem leidir Jósep eins og hjørd, þú sem hefur Kerúba fyrir hásæti, sýndu þig dýrdlegann! 3. Votta þú þitt veldi, Efraim, Benjamín og Manasse, og kom oss til hjálpar. 4. Gud! láttu oss rétta vid aptur, og lát þitt andlit lýsa, þá verdum vér hólpnir. 5. Drottinn, herskaranna Gud! hvørsu leingi reidist þú, þó þitt fólk bidji. 6. Þú fædir þá med harma braudi, og þrefaldann tára mælir géfur þú þeim ad drekka. 7. Þú gjørir oss ad þrætu epli vorra nábúa, og vorir óvinir hæda oss sín á milli. 8. Herskaranna Gud! lát oss rétta vid aptur og þitt andlit lýsa, ad vér verdum hólpnir! 9. Vínvid fluttir þú af Egyptalandi, rakst út þjódirnar og plantadir hann; 10. þú ruddir landid fyrir hann, og létst hann rótfestast, og hann uppfyllti landid. 11. Fjøllin eru hulin med hans skugga, og med hans greinum, Sedrus trén Guds. 12. Hann útþandi sínar greinir til hafsins og sínar vínþrúgur til árinnar, þ. e. Evfrat. 13. Því hefir þú nidurrifid gyrdínguna í kríngum hann, svo ad allir sem fara fram hjá um veginn, plokka af honum? 14. Skógarins svín róta í kríngum hann, og merkurinnar villidýr naga hann. 15. Herskaranna Gud! snúdu þér vid, líttu nidur af himni og sjádu, og horf þú á þennan vínvid. 16. Verndadu þad sem þín hægri hønd plantadi, og þann son sem þú útvaldir. 17. Hann (vínvidurinn), er

uppbrendur med eldi, hann er upphøgginn, þeir tortínast fyrir þínu hótandi augliti. 18. Þín hønd sé yfir þeim manni, sem þín hægri hønd frelsadi, yfir þeim mannsins syni sem þú valdir þér. 19. Þá munum vér ekki víkja frá þér, lífga oss aptur, og vér munum ákalla þitt nafn. 20. Drottinn, herskaranna Gud! láttu oss rétta vid og þitt andlit lýsa, þá verdum vér hólpnir.

## 81. Sálmur.

Áminníng ad halda Páska.

1. Til hljódfærameistarans, eptir Gittit; af Asaf. 2. Sýngid med føgnudi fyrir Gudi, vorum styrkleika! fagnid fyrir Jakobs Gudi! 3. Hefjid lofsaunginn, sláid trumburnar og þau líflegu hljódfæri og hørpu. 4. Blásid í básúnuna, þegar túngl kémur og fyllist á vorum hátídisdegi. 5. Því þetta er sidur í Israel, bodord Jakobs Guds. 6. Þetta gjørdi hann ad reglu í Jósep, þá hann fór á móti Egyptalandi. Rødd þess sem eg ekki þekki, kémur mér til eyrna. 7. „Eg tók hans herdar undan byrdinni, hans hendur fríudust frá kørfunum, 8. þú kalladir í neydinni og eg fríadi þig, eg bænheyrdi þig frá (mínu) þrumuskýi, eg reyndi þig hjá Meríba vatni. (Málhvíld). 9. Heyr, mitt fólk! eg vil vitna þín á medal, ó, ad þú vildir heyra mig, Israel! 10. Einginn Gud útlendra sé þín á medal, ei skaltu tilbidja útlanda Gudi! 11. Eg er Drottinn þinn Gud, sem útleiddi þig af Egyptalandi; ljúk þínum munni vídt í sundur, eg mun fylla hann. 12. En mitt fólk heyrdi ekki mína raust, og Israel vildi ekki hlýda mér. 13. Svo ofurgaf eg þá þverúd þeirra hjartna, ad þeir geingu eptir sínu eigin rádi. 14. Ó! ad mitt fólk vildi heyra mig! ad Israel vildi gánga á mínum vegum! 15. Þá skyldi eg innan skamms audmýkja þeirra óvini, og snúa minni hendi mót þeirra mótstødumønnum. 16. Þeir sem hata Drottinn, skyldu fyrir honum hræsna, en lukka (Guds fólks) skyldi vara eilíflega, 17. eg skyldi fæda þad á hveitisfitu, og metta þig med hunángi af hellunni."

## 82. Sálmur.

Móti hardstjórum.

1. Sálmur Asafs. Gud stendur í Guds søfnudi, hann heldur dóm medal Gudanna. 2. Hvørsu leingi viljid þér dæma rángt, og halda med þeim ógudlegu. 3. Látid lítilmagnann og þann fødurlausa ná rétti, útvegid réttvísi aumínganum og þeim fátæka. 4. Bjargid lítilmagnanum og hinum snauda, frelsid hann af hendi hins ógudlega. 5. En þeir þekkja þad ekki, þeir skilja þad ekki, í mirkrinu gánga þeir, því hristist allur landsins grundvøllur. 6. Eg hefi sagt: þér erud gudir, og þér erud allir børn hins ædsta. 7. En — þér skulud samt deya sem menn og falla sem adrir høfdíngjar. 8. Gud! stattu upp og dæmdu jørdina, því þú ríkir yfir øllum þjódum.

## 83. Sálmur.

Bæn móti Israels óvinum.

1. Sálmasaungur Asafs. 2. Gud! þegi þú ekki, vertu ekki mállaus, haldtu ekki kirru fyrir, ó Gud! 3. Því sjá! þínir óvinir hafa hátt um sig, og þeir sem hata þig, upplypta sínum høfdum. 4. Þeir semja heimuglegar rádagjørdir gégn þínu fólki, þeir rádslaga móti þeim sem þú verndar. 5. Þeir segja: komid! látum oss afmá þá af þjódanna tølu, ad Israels nafns sé ei framar gétid. 6. Þeir rádslaga innbyrdis med eindrægni; móti þér inngánga þeir sáttmála, 7. tjaldbúdir Edomíta og Ismaelíta, Móabíta og Hagaríta. 8. Gebalítar, Ammonítar og Amalekítar, og Filistear med innbyggjurunum í Týrus. 9. Assýría geingur í lid med þeim og ljær sinn arm børnum Lots.

(Málhvíld). 10. Gjørdu vid þá hid sama sem vid Midianíta, sem vid Sísera, sem vid Jabin hjá Kishons læk, 11. sem voru eydilagdir hjá Endor, þeir urdu ad áburdi fyrir jørdina! 12. Fardu med þeirra fursta einsog Oreb og Seeb, og sem Seba og Salmuna, alla þeirra fyrirlida; 13. sem segja: látum oss inntaka Guds bústadi. 14. Minn Gud! gjør þá sem rik fyrir hvirfilvindi, sem agnir fyrir stormi! 15. Einsog eldurinn kveikir í skógi, og loginn brennir fjøllin. 16. Svoleidis skaltu ofsækja þá med þínum stormi og skélfa þá med þínum hvirfilbil, 17. uppfylltu þeirra andlit med skømm, ad þeir leiti þíns nafns, Drottinn! 18. Lát þá sneypast og skélfast æ og ætíd, skammast sín og tortínast. 19. Þá munu þeir kannast vid, ad þú, Drottinn! alleina, ert sá ædsti yfir allri jørdinni.

## 84. Sálmur.

*Laungun til musterisins.*

1. Til saungmeistarans, á Gitit, fyrir Koras børn. 2. Hvørsu yndislegir eru þínir bústadir, Herskaranna Drottinn. 3. Mína sálu lángar innilega eptir Drottins forgardi, mitt hjarta og minn líkami fagnar fyrir þeim lifanda Gudi. 4. Titlíngurinn finnur sér hús og svalan hreidur, hvar hún géti lagt sína únga; vid þitt altari, Drottinn herskaranna, minn Kóngur og minn Gud! 5. Sælir eru þeir sem búa í þínu húsi, þeir géta sífeldt lofad þig, (málhvíld). 6. Sæll er sá madur hvørs styrkleiki er í þér, í hvørra þánka vegirnir eru (til Jerúsalem). 7. Þegar þeir gánga um sorgarinnar dal, umbreita þeir honum í vatnsríka dæld og haustregnid þekur hana med blessun. 8. Þeim eykst meir og meir kraptur, þángad til þeir sýna sig fyrir Gudi á Síon.

9. Ó Drottinn, Herskaranna Gud! heyr mína bæn, Jakobs Gud! (málhvíld). Snú til mín þínu eyra. 10. Gud! vor skjøldur, líttu nidur og lít á ásýnd þíns Smurda! 11. Því betri er einn dagur í þínum forgardi enn þúsund adrir, heldur vil eg stadnæmast á þrepskuldinum í húsi míns Guds, heldurenn búa í tjaldbúdum hins ógudlega. 12. Því Gud Drottinn er sól og skjøldur, Drottinn géfur nád og heidur, hann synjar þeim um ekkért gott sem framgánga í rádvendni. 13. Herskaranna Drottinn! sæll er sá madur sem treystir þér!

## 85. Sálmur.

*Bæn um ríkisins vidréttíngu.*

1. Til saungmeistarans; Sálmur fyrir Koras børn. 2. Drottinn þú sem ádur varst miskunsamur þínu landi, þú hefir leidt heim Israels fánga. 3. Þú hefir burttekid misgjørd þíns fólks, þú hefir falid þess synd, (málhvíld). 4. Þú hefir lagt afsídis alla þína reidi, þú hefir hætt á ákéfd þinnar brædi. 5. Snú þér til vor, vor frelsis Gud! og slepp þinni óvináttu vid oss. 5. Ætlar þú eilíflega ad vera oss reidur? viltu útþenja þína reidi frá kyni til kyns? 7. Viltu ei lífga oss aptur, ad þitt fólk megi gledja sig í þér? 8. Drottinn! lát oss sjá þína miskun, og veit þú oss hjálp. 9. Eg vil heyra þad sem Drottinn talar, því hann talar frid til síns fólks og til sinna heiløgu, einasta ad þeir ei hverfi aptur til heimskunnar, 10. já, hans frelsi er þeim nálægt sem hann óttast, svo skal þá dýrdin búa í voru landi. 11. Miskun og trúfesti munu mæta hvør annari. réttvísi og fridur kyssa hvørt annad, 12. trúfesti mun uppspretta af jørdunni og réttlætid líta nidur af himninum. 13. Drottinn mun og géfa blessan, og vort land géfa sinn ávøxt.

## 86. Sálmur.

*Bæn hins mótlætta.*

1. Bæn Davids. Drottinn, hneig þitt eyra! bænheyr mig! því eg er aumur og fátæk-

ur. 2. Varðveit mína sál, því eg elska þig, frelsa þinn þénara, þú minn Guð! þann sem reiðir sig á þig. 3. Drottinn vertu mér náðugur, því þig ákalla eg allan daginn, 4. gleð sálu þíns þénara, því til þín, Drottinn! upplyfti eg minni sál. 5. Því þú, Drottinn! ert góður og fyrirgéfur, og ert mjøg miskunsamur þeim sem þig ákalla. 6. Drottinn! snú þínu eyra til minnar bænar og géf gaum að raust minnar grátbeiðni.

7. Á minnar neyðar degi ákalla eg þig; því þú bænheyrir mig. 8. Einginn meðal guðanna er sem þú, Drottinn! og ekkért líkt þínum verkum. 9. Allar þjóðir sem þú hefir skapað, skulu koma og tilbiðja fyrir þínu augliti, Drottinn! og þær munu heiðra þitt nafn. 10. Því þú ert mikill, þú ert sá sem gjørir dásemðar verkin, þú ert sá eini Guð. 11. Kénn mér, Drottinn! þinn veg, að eg gángi í þínum sannleika, laga mitt hjarta svo það óttist þitt nafn. 12. Eg skal þakka þér, Drottinn, minn Guð! af øllu hjarta, og heiðra þitt nafn eilíflega. 13. Því þín miskun við mig er mikil, þú frelsar mína sálu úr þeirri djúpu grøf. 14. Guð! þeir dramblátu rísa móti mér og ofbeldismanna hópur sítur um mitt líf, og þeir hafa þig ei fyrir augum. 15. En þú, Drottinn! ert miskunsamur og náðugur Guð, þolinmóður og ríkur af miskun og trúfesti. 16. Snú þínu augliti til mín og vertu mér náðugur, ljá þínum þénara þinn stirkleika, og frelsa son þinnar ambáttar. 17. Gjørðu tákn á mér til góðs, að þeir sem hata mig, géti sjeð það og sneypst, að þú, Drottinn! hefir hjálpað mér og huggað mig.

## 87. Sálmur.

### Síons Vegsemð.

1. Lofsaungur fyrir Koras børn. Hennar, (Jerúsalems) grundvøllur hvílir á því heilaga fjalli. 2. Drottinn elskar Síons hlið framyfir alla Jakobs bústaði. 3. Dýrðlega er um þig talað, þú Guðs borg! (málhvíld). 4. Eg vil minnast á Egyptaland og Babel meðal þeirra sem þekkja mig, sjá! það skal heita um Filistea og Tyriska samt Morlendska, þeir eru hér fæddir a). 5. Og um Síon skal súngið verða: þessi og hinn er hér fæddur, og sá æðsti mun það sanna. 6. Drottinn mun telja þá, þegar hann innskrifar fólkið og segja: þessi er fæddur hér (málhvíld). 7. og þeir sem sýngja, og þeir sem dansa, munu segja: allar mínar uppsprettur eru í þér.

## 88. Sálmur.

### Bæn eins sorgfulla.

1. Saungur fyrir Koras børn, að sýngja á víxl, (leika á hørpu). Kénnsluljóð af Heman Esrahita. 2. Drottinn, míns frelsis Guð! eg kalla á dagin, já, á nóttunni, fyrir þér. 3. Lát mína bæn koma fyrir þitt auglit, hneig þitt eyra til minnar grátbeiðni. 4. Því mín sál er mett af ólukkunni og mitt líf hallast til grafar. 5. Eg er talin með þeim sem stíga niður í grøfina, eg em sem kraptalaus maður. 6. Eg reiknast með þeim dauðu, máttlaus, eins og þeir í helstegnu er liggja í grøfinni, sem þú ei framar minnist, og sem eru þér úr hendi. 7. Þú hefir hrindt mér niður í djúpa grøf, í myrkur, í afgrunninn. 8. Þín reiði hvílir yfir mér, og þú þreingir að mér með øllum þínum bylgjum, (málhvíld). 9. Þú hefir fjærlægt frá mér mína kunníngja, þú hefir gjørt mig þeim mjøg viðurstyggilegan, innilokaður kémst eg ekki út. 10. Mitt auga er dapurt af eymd; Drottinn! eg kalla til þín allann daginn, út til þín rétti eg mínar hendur.

11. Ætla þú gjørir dásemdir á þeim dauðu? ætla sálir þeirra øndudu upprísi og lofi þig? 12. Mun þín miskun kunngjørast í grøfunum, og þín trúfesti í rotnuninni? 13. Munu

V. 4. a. Þeir skulu fá Gyðinga rétt.

þínar dásemdir þekkjast í myrkrinu? eda þitt réttlæti í gleimskunnar landi? 14. Eg kalla nú til þín, Drottinn! og mín bæn kémur árla, fram fyrir þig. 15. Því útskúfar þú minni sálu, ó Drottinn! því byrgir þú þitt auglit fyrir mér? 16. Frá úngdómi er eg vesæll, eg daudvona, eg ber þínar skélfíngar, eg örvílnast. 17. Yfir mig er komin þín heipt, þínar hrellíngar tortína mér; 18. þær umkríngja mig allann daginn sem vatn, þær slá aldeilis um mig hríng. 19. Þú færdir lángt frá mér mína vini og stallbrædur, mínir kunníngjar eru faldir í myrkri (ósýnilegir).

## 89. Sálmur.

*Bæn fyrir Davíds ættlegg.*

1. Kénnsluljód af Ethan Esrahíta. 2. Um Drottins miskun vil eg eilíflega sýngja, frá kyni til kyns skal minn munnur kunngjöra þína trúfesti. 3. Því eg hugsa: fyrir eilífd var þín miskun til, jafnsnemma sem himinin festir þú þína trúfesti, og sagdir: 4. „eg gjördi sáttmála vid minn útvalda, eg sór Davíd mínum þénara: 5. eg vil stadfesta þitt sædi eilíflega, og byggja þitt hásæti frá kyni til kyns". 6. Himnarnir prísa þínar dásemdir, Drottinn! og söfnudur hinna heilögu þína trúfesti. 7. Því hvör í þeim háu skýum gétur jafnast vid Drottinn? 8. Hvör er Drottni líkur medal gudanna barna? Gud er mjög óttalegur í leindarrádi hinna heilögu, og hrædilegur fram yfir alla sem eru í kríngum hann. 9. O Drottinn, Herskaranna Gud! hvör er sem þú, voldugur, ó Drottinn! og þín trúfesti er allt í kríngum þig. 10. Þú drottnar yfir hafsins drambsemi, þegar þess bylgjur lypta sér upp, lægir þú þær. 11. Þú sundurmer hinn drambsama, sem þann í helsleigna. Med þínum sterka armi tvístrar þú þínum óvinum. 12. Þér tilheyra himnarnir, þér jördin, heimurinn og þad sem í honum er, þú grundvalladir hann. 13. Nordur og sudur skapadir þú, Tabor og Hermon gledja sig vid þitt nafn. 14. Þú hefir armlegg fullan af krapti. Þín hönd er sterk, þín hægri hönd er á lopti. 15. Réttur og réttvísi er festa þíns hásætis, miskun og sannleiki sífeldt þér fyrir augsýn.

16. Sæl er sú þjód, sem þekkir básúnunnar hljóm, Drottinn! hún geingur í ljósi þíns andlitis. 17. Í þínu nafni fagna þeir allan daginn, og af þinni réttvísi hrósa þeir sér. 18. Því þú ert prýdin þeirra styrkleika, og þín nád upplyptir vorum höfdum. 19. Frá Drottni er vor skjöldur, og frá Ísraels heilaga vor Kóngur. 20. Þá taladir þú til þíns heilaga í einni sýn og sagdir: eg hefi ætlad hetjunni hjálp, eg hefi upphafid þann útvalda af fólkinu, (sjá v. 4. 5). 21. Eg hefi fundid Davíd minn þénara, eg hefi smurt hann med vidsmjöri (minni heilögu olíu). 22. Med honum skal mín hönd ávalt vera, já, minn armur skal styrkja hann. 23. Óvinurinn skal ekki þraungva honum, og ránglætisins sonur skal ei undirþrykkja hann. 24. En eg skal sundurmerja hans mótstödumenn fyrir hans augsýn, og slá þá sem hann hata. 25. Og mín trúfesti og miskun skal vera med honum, og í mínu nafni skal hans höfud upphefjast. 26. Og eg vil útþenja hans hönd til hafsins, og hans hægri hönd til ánna (Evfrat og Tígris). 27. Hann mun ávarpa mig þannig: þú ert minn fadir, minn Gud og míns frelsis klettur. 28. Já, eg vil gjöra hann ad frumburdi, ad þeim ypparsta medal jardarinnar Kónga. 29. Eg vil vardveita honum mína miskun eilíflega, og minn sáttmáli skal vandlega vera haldinn vid hann. 30. Eg mun gjöra hans ætt lánggjæda, og hans hásæti sem himinsins aldur (daga). 31. Ef ad hans nidjar yfirgéfa mín lög, og ekki gánga í mínum réttindum. 32.

Ef ad þeir vanhelga mínar skikkanir, og halda ekki mín bodord, 33. þá mun eg straffa þeirra yfirtrodslur med vendi, og þeirra misgjørdir med høggum, 34. en eg mun ekki frá þeim taka mína nád, og ekki láta þeim bregdast mína trygd. 35. Eg mun ekki vanhelga (rjúfa) minn sáttmála, og ekki umbreyta því sem út er gengid af mínum vørum. 36. Eg sór einusinni vid minn heilagleika: eg skal ekki ljúga ad Davíd. 37. Hans nidjar skulu ætíd vidvara, og hans hásæti, sem sólin, fyrir mínu augliti. 38. Einsog túnglid skal hann ætíd vidvara og sem vitnid í skýunum er sannsøgult. 39. En nú útskúfar þú honum og fyrirlítur — þú ert reidur þínum Smurda. 40. Þú metur einkis sáttmálann vid þinn þénara, og vanhelgar allt ad duftinu hans kórónu. 41. Þú nidurrifur alla hans múrveggi, þú gjørir hans kastala ad eydileggíng. 42. Allir sem fram hjá fara, ræna hann; sínum nábúum er hann ordinn ad hádúng. 43. Hægri hønd hans mótstødumanna upphefur þú. 44. Þú gledur alla hans óvini. Þú lætur hans beitta sverd víkja, svo hann stendst ekki í stridinu. 45. Þú gjørir enda á hans ljóma og kastar hans hásæti nidur til jardar. 46. Þú styttir hans æsku daga og þekur hann med skømm. 47. Hvørsu leingi, Drottinn! ætlar þú ad fela þig? mun þín reidi ætíd loga sem eldur? 48. Minnstu mín! hvad er lífid? til hvílíks hégóma skapadir þú øll mannanna børn? 49. Hvør madur lifir sem ekki sjái daudann? sem géti fríad sína sálu frá grafarinnar ofbeldi. 50 Drottinn! hvar er þín fyrri miskun sem þú sórst Davíd vid þinn sannleika? 51. Minnstú, Drottinn! á forsmán þinna þénara, ad eg ber í mínum barmi allar þær miklu þjódir, 52. ad þínir óvinir, Drottinn! spotta, ad þeir spotta fótspor þíns smurda. 53. Lofadur veri Drottinn eilíflega! Amen! já, Amen!

# Fjórda Bók.

## 90. Sálmur.

Guds nád eilíf. Mannlegt líf skamvinnt. Bæn um Guds miskun.

1. Bæn Mósis þess Guds manns. Drottinn! þú varst vort athvarf frá kyni til kyns. 2. Ádur enn fjøllin fæddust og þú tilbjóst jørdina og heiminn, já, frá eilífd til eilífdar, ertu Gud. 3. Þú gjørir manninn ad dufti og segir: komid aptur, þér mannanna børn! 4. Því þúsund ár eru fyrir þínum augum sem dagurinn í gjær, þá hann er lidinn, og eins og næturvaka. 5. Þú burt skolar þeim, þeir eru sem draumur; á morgnana sem gras, er skjótt hverfur. 6. Á morgnana blómgast þad og fer, á kvøldin er þad sleigid og þurkad. 7. Því vér tortínumst í þinni reidi, og hrøkkum undan þinni brædi. 8. Þú setur vorar misgjørdir þér fyrir augu, vorar heimuglegu syndir fyrir ljós þíns auglitis. 9. Því allir vorir dagar hverfa burt fyrir þinni reidi, vér eydum vorum árum einsog hugsan. 10. Vorir æfidagar eru sjøtíu ár, og med sterkri heilsu áttatíu ár, og þad þeirra hid kostulegasta er sorg og mæda, því þau lída skjótt, og vér erum á flugi. 11. Hvørr þekkir stirkleika þinnar reidi, og þína brædi einsog óttinn fyrir þér útheimtir? 12. Kénn oss svo ad telja vora daga, ad vér verdum forsjálir. 13. Snú þér til vor, Drottinn! hvørsu leingi a)? aumkastu yfir þína þénara. 14. Metta oss skjótt med þinni miskun, svo munum vér fagna og gledja oss alla daga vors lífs. 15. Gled oss nú eins marga

V. 13. *a.* Al. viltu vera reidur.

daga, og þú hefir oss beigt, eins mørg ár og vør høfum sjeð ólukku. 16. Lát þína þjóna sjá þitt verk, og þeirra børn þína dýrð. 17. Drottins vors Guðs góðgirni veri yfir oss og staðfesti verk vorra handa, já, lát þér þóknast að staðfesta verkin vorra handa!

## 91. Sálmur.

Lukka þess sem treystir Guði.

1. Hvør sem býr undir varðveitslu hins æðsta, sá hvílir óhult í skugga hins almáttuga. 2. Eg segi við Drottinn: þú ert mitt athvarf og mitt vígi, minn Guð! á hvørn eg treysti. 3. Því hann frelsar þig, af snøru veiðimannsins. frá þeirri háskalegu drepsótt. 4. Með sínum fjøðrum mun hann skýla þér og undir hans vængjum muntu finna hæli, hans trúfesti er skjøldur og brinja. 5. Þú munt ei hræðast næturinnar skélfingu, og ei þær pílur sem fljúga á daginn, 6. ekki þá drepsótt sem fer áfram í myrkrinu, ei þá sótt sem eyðileggur um hádegið. 7. Þóað þúsund falli þér til vinstri handar og tíu þúsund til hægri handar, þig nálgast það ekki. 8. Þú skalt að eins sjá það með augunum, og horfa á gjøld hinna óguðlegu. 9. Því þú, Drottinn! ert mitt athvarf; (svar annars) þann æðsta hefir þú valið þér til varnar. 10. Þér mætir ekkért íllt, og eingin plága nálgast þína tjaldbúð. 11. Því hann mun bjóða þér sína eingla að varðveita þig á øllum þínum vegum. 12. Á høndum bera þeir þig, að þú ei steytir fót þinn við steini. 13. Yfir ljón og eyturorma muntu gánga og troða ofaná ljónsúnga og dreka (að ósekju). 14. Hann hefir føgnuð af mér, því mun eg frelsa hann (segir Drottinn) eg vil upphefja hann, af því hann þekkir mitt nafn. 15. Hann skal ákalla mig, og eg vil bænheyra hann, eg er hjá honum í neyðinni, eg mun frelsa hann, og gjøra vegsamlegann. 16. Með lánglífi mun eg metta hann og láta hann sjá mitt hjálpræði.

## 92. Sálmur.

Lofgjørð og trúartraust.

1. Lofsálmur á Sabbatsdegi. 2. Það er fallegt að þakka Drottni og sýngja lof þínu nafni, þú æðsti! 3. að kunngjøra þína náð um morguninn og þína trúfesti á næturnar, 4. á tíu streingja-hljóðfæri, Higajon, með hørpum (ýmisleg hljóðfæri). 5. Því þú gleður mig, Drottinn! með þínum verkum, við verkin þinna handa vil eg gleðjast. 6. Hvørsu stór eru þín verk, Drottinn! mjøg djúpar eru þínar hugsanir. 7. Fávís maður þekkir þær ekki, og heimskínginn skilur þær ekki. 8. Þegar þeir óguðlegu grænka sem grasið, og allir þeir blómgast sem aðhafast ránglæti, þá skéður það til þéss að þeir eyðileggist að fullu og øllu. 9. Og þú, Drottinn! ert hár að eilífu. 10. Því sjá! þínir óvinir, ó Drottinn! þínir óvinir fyrirfarast; tvístrast allir þeir sem rángt gjøra. 11. En þú munt upplyfta mínu a) horni sem einhyrníngsins; eg er smurður með b) nýu viðsmjøri. 12. Og mitt auga mun með gleði sjá mína óvini, sem rísu móti mér, af þeim vondu munu mín eyru frétta. 13. Sá ráðvandi mun grænka sem pálmaviður, sem Sedrustré á Libanon vaxa. 14. Þeir sem eru gróðursettir í Drottins húsi, munu grænka í vors Guðs forgarði. 15. Jafnvel í sinni elli skulu þeir bera ávøxt, hafa vøkva og grænka, 16. til að kunngjøra að Drottinn, mitt vígi, er réttlátur, að í honum eru eingin ránglndi.

## 93. Sálmur.

Lofgjørð Drottins.

1. Drottinn er Konúngur, íklæddur hátign, Drottinn hefir íklæðst, hann hefir girðt sig krapti. Því er jørðin føst, svo hún bifist

V. 11, *a.* Tign, *b.* Menn smurðu sig í gleði veitslum.

ekki. 2. Fast stendur þitt hásæti frá upphafi, frá eilífd ertu til. 3. Vatnsføll upphefjast, Drottinn! vatnsføllin upphefja sína raust. Vøtnin hefja nid sinna bylgna. 4. Voldugri, heldurenn þeirra vatna raust, heldurenn hafsins bylgjur, er Drottinn í hædinni. 5. Þinn vitnisburdur (løg) er sannur, þínu húsi tilheyrir heilagleikans prýdi, Drottinn! til daganna enda.

## 94. Sálmur.

Bæn á móti Israels óvinum.

1. O Drottinn! hefndarinnar Gud, þú hefndarinnar Gud, opinbera þig dýrdlega. 2. Upphef þig, þú jardarinnar dómari. Endurgjald þú þeim dramblátu. 3. Hvørsu leingi skulu þeir ógudlegu, Drottinn! hvørsu leingi skulu þeir ógudlegu gledja sig? 4. Þeir útausa, þeir tala hørd ord, þeir stæra sig, allir þeir sem rángindi adhafast. 5. Þitt fólk, ó Drottinn! merja þeir, og þína erfd plága þeir. 6. Ekkjuna og hinn útlenda drepa þeir, og fødurlausa myrda þeir. 7. Og þeir segja: Drottinn sjer þad ekki, og Jakobs Gud tekur ei eptir því. 8. Gjætid þó vitsins, jafnvel þér fávísu medal fólksins, og þér heimskíngjar! nær ætlid þér ad verda hyggnir? 9. Mun sá ei heyra sem eyrad hefir plantad, mun sá ei sjá sem augad hefir tilbúid? 10. Sá sem agar fólkid, mundi hann ekki straffa, sá sem kénnir mønnunum skilníng! 11. Drottinn þekkir mannanna hugsanir, ad þær eru hégómlegar. 12. Sæll er sá madur sem þú agar, Drottinn! og sá sem þú mentar í þínu løgmáli; 13. ad veita honum svíun á þeim vondu døgum, þángad til grøfin verdur grafin þeim ógudlegu. 14. Því Drottinn mun ei sleppa hendinni af sínu fólki, og ekki yfirgéfa sína erfd. 15. Því dómurinn mun hverfa aptur til réttvísi, og allir þeir hreinskilnu munu honum fylgja. 16. Hvør rís upp mín vegna, gégn þeim vondu? hvør verdur fyrir mig móti þeim sem gjøra órétt? 17. Hefdi Drottinn ei verdid mín hjálp, þá mundi minna ávanta ad mín sál byggi í kyrdinni. 18. Þegar eg hugsadi: nú rasar minn fótur, þá studdi mig, Drottinn! þín miskun. 19. Þegar margar hugarhrellíngar voru í mínu hjarta, hrestu þínar hugganir mína sálu. 20. Mundi fordjørfunarinnar hásæti hafa samfélag vid þig? eda sá ofbeldismadur sem þverskallast vid løg og rétt? 21. Hópum saman gjøra þeir árás lífi hins rádvanda, og saklaust blód fordæma þeir. 22. En Drottinn er mín ørugg borg, minn Gud er mitt vígi. 23. Hann lætur þeirra ránglæti hverfa til baka og yfir þá koma, og hann mun afmá þá vegna þeirra vondsku. Já, Drottinn, vor Gud, mun afmá þá.

## 95. Sálmur.

Menn skulu lofa Gud og hlýda honum.

1. Hananú! látum oss fagna fyrir Drottni, gledjum oss frammi fyrir bjargi vors frelsis! 2. Látum oss med þakkargjørd koma fyrir hans auglit, med saung fagna frammi fyrir honum! 3. Því Drottinn er mikill Gud og voldugur Konúngur yfir øllum Gudum. 4. Í hans hendi eru jardarinnar filsni, og fjallanna audur er hans. 5. Hans er hafid, því hann gjørdi þad og hans hendur tilbjuggu þurrlendid. 6. Komid! látum oss framfalla og tilbidja, látum oss beigja kné fyrir Drottni vorum skapara! 7. Því hann er vor Gud og vér erum fólk hans haglendis og hjørd sem hans handar. 8. O! ad þér í dag vildud heyra hans raust! forherdid ekki ydar hjørtu sem í Meriba, eins og á freistíngarinnar degi í eydimørkinni, 9. hvar ydar fedur freistudu mín, reyndu mig, þó þeir sæu mín verk. 10. Fjørutíu ár stríddi eg vid þessa kynslód, og eg sagdi: þeir eru þad fólk sem fer villt med sínu hjarta, og þeir þekkja ekki mína

vegu. 11. Því sór eg í minni reidi: þeir skulu aldrei inngánga til minnar hvíldar.

## 96. Sálmur.

Amínníng ad lofa Drottinn. (1 Krb. 17, 23—33).

1. Sýngid Drottni nýan saung, sýngi øll jørdin Drottni! 2. Sýngid Drottni og lofid hans nafn, kunngjørid hans hjálp dag eptir dag. 3. Segid frá hans dýrd medal þjódanna, frá hans dásemdum medal alls fólks. 4. Því mikill er Drottinn, og mjøg loflegur; óttalegur er hann framyfir alla Gudi. 5. Því allir gudir þjódanna eru afgudir, en Drottinn gjørdi himnana. 6. Hátign og ljómi eru fyrir hans augsýn, heidur og vegsemd í hans helgidómi. 7. Greidid Drottni, þér þjódir! greidid Drottni heidur og lof. 8. Greidid Drottni heidur hans nafns, framberid gáfur, og komid í hans forgard. 9. Nidurkastid ydur fyrir Drottinn, í helgum skrúda, skjálfi fyrir hans augliti øll jørdin. 10. Segid medal heidíngjanna: Drottinn er Kóngur; því er jørdin føst, svo hún bifist ei, hann dæmir þjódirnar med réttvísi. 11. Himnarnir gledjist, og jørdin fagni, hafid þjóti upp og allt þad sem í því er, 12. foldin gledji sig og allt sem á henni er, já, øll tré skógarins fagni, 13. fyrir Drottins augliti, því hann kémur, kémur til ad dæma jørdina; hann mun dæma jardríkid med réttvísi, og þjódirnar med sinni sannsýni.

## 97. Sálmur.

Lofgjørd Drottins.

1. Drottinn er Konúngur, jørdin gledji sig; þær mørgu eyarnar fagni. 2. Ský og dymma eru allt í kríngum hann; réttur og réttvísi er festa hans hásætis. 3. Eldur fer fyrir honum, og tortínir, allt um kríng, hans óvinum. 4. Hans eldíngar upplýsa jardríkid, jørdin sjer þad og bifast. 5. Fjøllin brádna sem vax fyrir Drottins augsýn, fyrir augsýn hans sem drottnar yfir allri jørdunni. 6. Himnarnir kunngjøra hans réttlæti og allar þjódir sjá hans dýrd. 7. Sneypast skulu allir þeir sem dýrka líkneskjur, sem stæra sig af skurdgodum. 8. Hann tilbidja allir gudir, Síon heyrir þad og gledst, Júdeu dætur (borgir) gledjast vid þína dóma, Drottinn! 9. Því þú, Drottinn! ert sá ædsti yfir allri jørdinni; þú ert mjøg upphafinn yfir alla Gudi. 10. Hatid hid illa, þér sem elskid Drottinn! hann vardveitir sálir sinna heiløgu, af hendi ógudlegra mun hann frelsa þá. 11. Ljós tendrast þeim réttláta og gledi þeim hreinskilnu af hjarta. 12. Gledjid ydur í Drottni, þér réttlátu! og vegsamid hans heilaga nafn.

## 98. Sálmur.

Lofgjørd Drottins.

1. Sýngid Drottni nýan saung! því hann hefir gjørt dásemdarverk. Hans hægri hønd frelsadi, og hans heilagi armleggur. 2. Drottinn kunngjørdi sitt frelsi, fyrir fólkfins augum opinberadi hann sitt réttlæti. 3. Hann mundi til sinnar miskunar og trúfesti vid Israels hús, øll jardarinnar endimørk sáu frelsi vors Guds. 4. Fagni fyrir Drottni øll jørd, sýngid og fagnid og dansid. 5. Leikid fyrir Drottni á hørpu, á hørpu med saung. 6. Medur básúnum og trumbu-hljóm, fagnid fyrir Konúnginum Drottni. 7. Hafid þjóti upp og allt sem í því er, jardríkid og þeir sem þar búa. 8. Árnar klappi lófum saman, øll fjøllin fagni med, 9. fyrir Drottins augliti, því hann kémur til ad dæma jørdina. Hann mun dæma jardríkid med réttvísi, og fólkid med sannsýni.

## 99. Sálmur.

Lofgjørd Drottins.

1. Drottinn ríkir; þjódirnar skjálfa, hann situr á Kerúbum, jørdin hristist. 2. Drottinn

er mikill á Síon, og upphafinn yfir allar þjódir.
3. Menn prísi þitt nafn, þad mikla og óttalega,
(heilagur er hann), 4. og vegsemd Kóngsins,
sem elskar réttindi; þú verndar sannsýni; rétt=
indi og réttvísi ydkar þú í Jakob. 5. Vegsam=
id Drottinn vorn Gud, og nidurkrjúpid á hans
fótskør! hann er heilagur!

6. Móses og Aron hans prestur, og Samúel
sem ákalladi hans nafn, þeir kølludu til Drott=
ins og hann bænheyrdi þá. 7. Í skýstólpan=
um taladi hann vid þá, þeir vardveittu hans
bodord, og þá setnínga sem hann gaf þeim. 8.
Drottinn vor Gud! þú bænheyrdir þá, þú Gud!
fyrirgafst þeim, jafnvel þó þú straffadir þá fyr=
ir þeirra breitni. 9. Upphefjid Drottinn vorn
Gud, og nidurkrjúpid fyrir hans heilaga fjalli!
því heilagur er Drottinn vor Gud.

## 100. Sálmur.

Lofgjørd Drottins.

1. Lofsálmur. Øll verøldin fagni fyrir
Drottni! þjónid Drottni med fagnadi. 2. Kom=
id fyrir hans augsýn med gledi! 3. Vidurkénn=
id ad Drottinn sé Gud; hann hefir skapad oss,
og vér erum hans, hans fólk og sú hjørd hans
haglendis. 4. Gángid inn um hans anddyri
med þakkargjørd, inn á hans forgard med lof=
gjørd, þakkid honum, vegsamid hans nafn! 5.
Því gódur er Drottinn, eilíf hans miskunsemi,
og frá kyni til kyns hans trúfesti.

## 101. Sálmur.

Góð áform Kóngsins.

1. Davíds ljód. Um gódsemi og réttvísi
vil eg syngja, fyrir þér, ó Drottinn! vil eg leika.
2. Eg vil taka eptir vegi hinna rádvøndu, þá
kémur þú til mín; eg vil framgánga í rádvendni
míns hjarta, innst í mínu húsi. 3. Ekkért íllt
verk vil eg setja mér fyrir augsýn, yfirtrodslur
hata eg. Þær skulu ei vid mig festast. 4. Óheilt
hjarta skal víkja frá mér, þann vonda vil eg
ekki þekkja. 5. Hvørn sem baktalar sinn ná=
únga leynilega, vil eg afmá, þann stolta og
drambláta vil eg ekki líða. 6. Mín augu skulu
leita eptir þeim trúføstu í landinu, ad þeir búi
hjá mér, hvør sem geingur á rádvendnis vegi,
hann skal verda minn þénari. 7. Sá sem ad=
hefst pretti, skal ekki vera í mínu húsi, hvør
sem talar lýgi skal ekki standast fyrir mínum
augum. 8. Hvørn dag vil eg afmá allan ó=
gudlegleika í landinu, útrídja úr Drottins
borg øllum þeim, sem ydka ránglindi.

## 102. Sálmur.

Bæn um Jerúsalems endurbyggíngu.

1. Bæn þess þjáda manns, sem
djúpt beigdur, úteys sínu kveini fyrir
Drottni. 2. Drottinn! heyr mína bæn, og
lát mína grátbeidni koma fyrir þig. 3. Byrg
ekki þitt auglit fyrir mér á neydarinnar degi;
hneig þitt eyra til mín, þá eg kalla! flýttu þér
ad bænheyra mig! 4. Því mínir dagar eru
horfnir sem reykur, og mín bein eru brunnin
eins og kol. 5. Mitt hjarta er þjád og þorn=
ad sem gras; því gleymi eg ad eta mitt braud.
6. Sakir míns kveins og andvarpa, loda bein=
in vid mína húd. 7. Eg em líkur ordinn
(fuglinum) Pellikan á eydimørku, eg er sem
náttugla í audninni. 8. Eg vaki (á nóttunni),
og er sem einmana fugl á húsþekju. 9. Hvørn
dag nýda mig mínir óvinir. Og þeir sem
æda gégn mér, sverja vid mig, (eins og vid
eitthvad íllt). 10. Því øskuna et eg sem braud,
og minn drykk blanda eg med tárum, 11.
vegna þinnar stygdar og reidi; því þú upp=
hófst mig og þú nidurfleigdir mér. 12. Mín=
ir dagar eru sem útþaninn skuggi, og eg visna
sem gras. 13. En þú, ó Drottinn! varir ei=
líflega og þitt nafn frá kyni til kyns. 14.
Þú munt upprísa, þú munt miskuna þig yfir

Síon; því tími er kominn ad þú sýnir henni nád; stundin er komin. 15. Því þínir þénarar elska Síons steina, og þeir aumkvast yfir hennar rik. 16. Þá munu þjódirnar óttast Drottins nafn, og allir jardarinnar Kóngar þína dýrd; 17. Drottinn uppbyggir Síon og sýnir sig í sinni dýrd. 18. Hann snýr sínu augliti til bæna hinna yfirgéfnu, og forsmáir ekki þeirra bæn. 19. Þad verdi skrásett fyrir nidjana, og þad uppvaxandi fólk, lofi Drottinn! 20. Því hann lítur nidur frá hæd síns helgidóms, Drottinn lítur af himni til jardar, 21. til ad heyra kvein fángans til ad leysa børn daudans, 22. ad þau meigi kunngjøra í Síon Drottins nafn, og hans lof í Jerúsalem, 23. þegar fólkid safnast saman og ríkin, til ad þjóna Drottni. 24. Hann ørþreitti á leidinni minn krapt, hann stytti mína daga. 25. Eg sagdi: minn Gud! tak mig eigi burt midt á mínum døgum. Þín ár vara eilíflega. 26. Jørdina festir þú fordum, og himnarnir eru þín handaverk, 27. þeir munu forgánga, en þú vidvarir, þeir munu eldast sem fat; þú skiptir um þá sem fat, og þeir umskiptast. 28. En þú verdur hinn sami, og þín ár fá eingann enda. 29. Þinna þénara børn munu búa (í landinu), og þeirra kyn mun stadfestast fyrir þínu augliti.

## 103. Sálmur.

Drottinn er réttlátur og nádugur Gud.

1. Sálmur. af Davíd. Lofa þú Drottinn, sála mín! og allt hvad í mér er, hans heilaga nafn! 2. Lofa þú Drottinn, sála mín! og gleim ekki øllum hans velgjørníngum. 3. Hans sem fyrirgéfur þér þína synd, og læknar þína veiki, sem leysir þitt líf frá grøfinni, krýnir þig med nád og miskun; 5. sem mettar þína sál med gjædum, svo þú ýngist upp sem ørn. 6. Drottinn ydkar réttvísi og dóm til handa øllum undirþryktum. 7. Hann kunngjørdi Móses sína vegi og Israels børnum sín verk. 8. Miskunsamur og nádugur er Drottinn, þolinmódur og ríkur af miskunsemi. 9. Hann mun ei alltíd gánga í rétt, ei heldur eilíflega geima sína reidi. 10. Hann breitti ei vid oss eptir vorum syndum, og endurgaldt oss ei eptir vorum misgjørdum. 11. Heldur svo hátt sem himininn er yfir jørdunni, svo máttug var hans miskunsemi yfir þeim sem hann óttudust. 12. Svo lángt sem austrid er frá vestrinu, fjærlægir hann frá oss vorar yfirtrodslur, 13. einsog fadirinn er børnunum líknsamur, svo er Drottinn miskunsamur þeim sem hann óttast. 14. Því hann þekkir vort edli, hann man til þess, ad vér erum dupt. 15. Madurinn — sem gras eru hans dagar; sem blómstrid á vellinum blómstrar hann. 16. Þegar vindurinn fer þar yfir, þá er þad ei framar til, og þess stadur kannast ei framar vid þad. 17. En Drottins miskun er frá eilífd til eilífdar yfir þeim sem hann óttast, og hans réttlæti yfir hans barna børnum, 18. yfir þeim sem halda hans sáttmála, og yfir þeim sem muna til hans bodorda, svo ad þeir hlýdi þeim. 19. Drottinn hefir sett sitt hásæti fast á himnum, og hans Kóngsdæmi drottnar yfir øllu. 20. Lofid Drottinn! þér hans einglar, þér voldugu í makt, sem framkvæmid hans bod, þér sem hlýdid raustu hans ords. 21. Lofid Drottinn! þér allar hans hersveitir, þér hans þénarar sem gjørid hans vilja. 22. Lofid Drottinn! þér øll hans verk, á øllum stødum hans herradæmis. Mín sál! lofa þú Drottinn!

## 104. Sálmur.

Lofgjørd Skaparans.

1. Lofa þú Drottinn, sála mín! Drottinn, minn Gud! þú ert mjøg mikill, þú hefir íklædt þig hátign og dýrd. 2. Hann klædir sig í ljós eins og annad fat; hann útþenur himininn eins og tjald. 3. Hann gjørir hvelfíngar af vatni

á sínum sal, hann brúkar skýin fyrir vagn, og
fer á vindsins vængjum. 4. Hann brúkar vind-
ana sem sína eingla, eldslogana sem sína þénara.
5. Hann festi jørdina á hennar grundvelli, svo
hún fer ei úr skordum ad eilífu. 6. Med hafinu
hafdir þú hulid hana eins og med fati, vatnid
nádi uppyfir fjøllin. 7. En þegar þú hastad-
ir á þau, svo flúdu þau fyrir þinni þrumurausi,
hlupu þau fljótt í burt. 8. Fjøllin hófust upp,
dalirnir þriktust nidur, þángad sem þú festir
þá. 9. Takmark settir þú þeim (vøtnunum) sem
þau ei máttu yfirfara, svo þau ekki aptur skyldu
byrgja jørdina. 10. Þú lætur uppsprettur út-
hella sér í læki, þeir renna milli fjallanna. 11.
Þeir géfa drykk øllum villudýrum skógarins, þar
svala sér skógarins asnar. 12. Hjá þeim búa
himinsins fuglar og sýngja í greinum trjánna.
13. Hann vøkvar fjøllin ofanad, landid mett-
ast af ávexti hans verka. 14. Hann lætur
grasid spretta fyrir fénadinn, og jurtir mønnun-
um til nota, í því hann útleidir braud af jørd-
unni, 15. og vín sem gledur mannsins hjarta,
svo hans andlit verdur þar af hýrlegra enn af vid-
smjøri, og braud sem endurnærir mannsins hjarta.
16. Drottins tré mettast, Líbanons sedrusvidur
sem hann plantadi, 17. þar sem fuglarnir hreidra
sig; storkurinn, hvørs bústadur furutrén eru. 18.
Þau háu fjøllin eru athvarf steingeitanna og
kletta skorurnar fjallmúsanna. 19. Hann skap-
adi túnglid til merkis fyrir tilteknar tídir, sólina,
sem þekkir sína nidurgaungu. 20. Þú útbreid-
ir myrkrid og þar verdur nótt, þá fara út skóg-
arins villudýr. 21. Ljónin sem øskra eptir brád,
og sem heimta sína fædslu af Gudi. 22. Sól-
in kémur upp, þau fara heim aptur, og liggja
kyrr í sínu bæli. 23. Þá geingur madurinn út
ad sínu verki og til sinnar vinnu allt til kvølds.
24. Hvørsu mikil eru þín verk, Drottinn! þú
gjørdir þau øll med vísdómi, jørdin er full af
þínum gjædum. 25. Þettad haf, stórt og vídt
um sig, þad er fullt af ótal sképnum, smáum
og stórum. 26. Þar um fara skipin, hvalfisk-
arnir, sem þú tilbjóst til ad leika sér þar í. 27.
Þær vona allar uppá þig, ad þú munir géfa
þeim þeirra fædu á sínum tíma. 28. Þegar
þú géfur þeim, samansafna þær; þegar þú upp-
lýkur þinni hendi, þá mettast þær af gjædum.
29. Ef þú byrgir þitt auglit, þá skélkast þær,
ef þú tekur þinn anda frá þeim, þá deya þær,
og hverfa til baka í duptid aptur. 30. Þú
útsendir þinn anda, þær skapast og þú end-
urnýar mynd jardarinnar. 31. Drottins veg-
semd vari eilíflega! Drottinn gledji sig vid sín
verk! 32. Líti hann til jardarinnar, þá bifast
hún, snerti hann fjøllin, þá rýkur úr þeim. 33.
Eg vil sýngja fyrir Drottni svo leingi sem eg
lifi, eg vil leika fyrir mínum Gudi medan eg er
til. 34. O! ad mitt tal mætti honum þókknast!
eg vil gledjast í Drottni. 35. O! ad syndarar
yrdu afmádir af jørdunni, og þeir ógudlegu ei
væru til, mín sála, lofa þú Drottinn! (Halelú-
ja!) — lofid Drottinn.

## 105. Sálmur.

Áminníng. Samanber 1 Kron. 17, 8. fl.

1. Þakkid þér Drottni, ákallid hans nafn!
kunngjørid hans verk medal fólksins; 2. Sýng-
id fyrir honum! leikid fyrir honum! yrkid um
allar hans dásemdir! 3. Hrósid ydur af hans
heilaga nafni! þeirra hjarta sem leita Drott-
ins, gledji sig! 4. Leitid eptir Drottni og hans
dýrd, leitid ætíd hans auglitis! 5. Munid til
þeirra dásemda sem hann hefir gjørt, hans jard-
teikna og dóma hans munns! 6. Þér nidjar Abra-
hams, hans þénara, þér børn Jakobs, hans út-
valda. 7. Hann Drottinn er vor Gud, á allri
jørdinni hans dómar. 8. Hann man ad eilífu
til síns sáttmála, þess ordsins, sem hann hefir
bodid, í þúsund kynþætti, 9. þess sáttmála sem
hann gjørdi vid Abraham, og þess eids sem

hann fór Jsaak. 10. Hann gjørdi þad ad félagskap vid Jakob, ad eilífum sáttmála vid Jsrael, 11. og sagdi: þér vil eg géfa Kanaansland, svosem ydur útlagda erfd.

12. Þá voru þeir ennú lítill hópur, fáir og framandi í landinu, 13. og þeir fóru frá fólki til fólks og frá einu ríki til annarar þjódar. 14. Hann leifdi eingum ad gjøra þeim skada, og straffadi Kóngana þeirra vegna, og sagdi: 15. snertid ekki mína smurdu, og gjørid mínum spámønnum ekkért illt. 16. Og hann kalladi hallæri inn í landid og gjørdi ónýtan allann braudveg. 17. Þá sendi hann mann á undan þeim, Jósep var seldur í þrældóm. 18. Þeir settu hans fætur í stokk, hann var lagdur í járn, 19. allt til þess tíma þá hans ord rættist, þá Drottins tal sýndi hann prófadann, 20. þá sendi Kóngurinn og lét láta hann lausann, þjódanna yfirdrottnari útleysti hann. 21. Hann setti hann herra yfir sitt hús, og drottnara yfir allt sitt góts, 22. til ad þvínga høfdíngjana eptir hans vilja, og kénna vísdóm hans øldúngum. 23. Eptir þad kom Jsrael til Egyptalands, og Jakob lifdi sem útlendíngur í Hams landi. 24. Og hann gjørdi sitt fólk mjøg frjóssamt, og lét þad verda fleira enn þess óvini. 25. Hann snéri þeirra hjørtum, svo þeir høtudu hans fólk, og breittu svikssamlega vid hans þénara.

26. Hann sendi Móses sínn þjón, Aron sem hann hafdi útvalid. 27. Þeir framkvæmdu medal þeirra hans undur og teikn í Hamslandi. 28. Hann sendi mirkur og lét verda dimt, og þeir (Móses og Aron) voru ekki óhlýdnir hans ordum. 29. Hann snéri þeirra (Egyptskra) vatni í blód, og drap þeirra fiska. 30. Þeirra land vall af froskum, allt inní innstu herbergi Kónganna. 31. Hann taladi, þá komu þar skorkvikindi; mý í øll þeirra héröd. 32. Hann gaf þeim hagl fyrir regn, eldsloga yfir þeirra land. 33. Hann feldi þeirra vínvid og fikjutré, og sundurbraut trén á hérødum þeirra lands. 34. Hann taladi, svo komu eingisprettur og grasmadkar ótallegir. 35. Og þeir uppátu allt gras í þeirra landi, og þeir átu allan ávøxt á þeirra økrum. 36. Og hann drap alla frumburdi í þeirra landi, frumgródann af allra þeirra krapti. 37. Og hann útleiddi Jsrael med silfri og gulli, og einginn var hrumur í hans kynkvíslum. 38. Egyptaland gladdist þá þeir løgdu á stad, því ótti fyrir þeim var kominn yfir þá (Egyptsku). 39. Hann útbreiddi ský til skjóls, og eld til ad upplýsa nóttina. 40. Þeir beiddu; þá lét hann vaktelur koma, og hann mettadi þá med himna braudi. 41. Hann upplauk kletti, og þar rann út vatn, þad flaut um þurra eydistadi eins og á. 42. Því hann mundi til síns heilaga ords, og til Abrahams síns þénara. 43. Og hann útleiddi sitt fólk med gledi, sína útvøldu med føgnudi. 44. Og hann gaf þeim þjódanna land, og þeir tóku undir sig fólksins erfidi. 45. Svo þeir skyldu halda hans réttindi og vardveita hans løg. (Hallelúja). Lofid Drottinn!

## 106. Sálmur.

*Endurminníng forfedranna synda.*

1. Lofid Drottinn! þakkid Drottni! því hann er gódur, og hans miskunsemi varir eilíflega. 2. Hvør gétur sagt frá Drottins veldi? hvør kunngjørt allt hans lof? 3. Sælir eru þeir sem halda løgin, ydka ætíd réttvísina. 4. Minnstu mín, Drottinn! eptir þinni velþóknan á þínu fólki. 5. Vitja þú mín med þitt frelsi, ad eg sjái velgeingni þinna útvøldu, og gledjist af gledi þíns fólks, og hrósi mér af þinni erfd. 6. Vér høfum syndgad med vorum forfedrum, oss hefir yfirsjest og vér høfum breitt ógudlega. 7. Vorir fedur í Egyptalandi gáfu

ei gaum ad þínum dásemdum. Þeir hugleiddu
ei þína miklu miskunsemi, heldur voru baldnir
vid hafid, vid sefhafid. 8. Þó bjargadi hann
þeim fyrir síns nafns sakir, til ad kunngjøra
sitt veldi. 9. Og hann hastadi á sefhafid svo
þad vard þurt, og lét þá gánga um hafsins
djúp sem audn. 10. Og hann frelsadi þá af
hendi offóknar mannanna, og losadi þá úr
hendi óvinanna. 11. Og vatnid fól þeirra
mótstødumenn, einginn af þeim komst af. 12.
Og þeir trúdu þá hans ordi, þeir súngu hans
lof. 13. Þó gleymdu þeir skjótt hans verk-
um, bidu ekki eptir hans rádum. 14. Gyrnd
vaknadi med þeim í eydimørkinni og þeir freist-
udu Guds í óbygdinni. 15. Hann veitti þeim
þad sem þeir gyrntust, en hann sendi sjúkdóm
yfir þá. 16. Þeir høtudust vid Móses í her-
búdunum, vid Aron Drottins heilaga. 17.
Jørdin opnadi sig, og svelgdi Datan og huldi
hóp Abírams. 18. Og eldur tendradist í þeirra
flokki, loginn eyddi þeim ógudlegu. 19. Hjá Hor-
eb gjørdu þeir kálf og tilbádu þá steiptu líkn-
eskju, 20. og þeir høfdu skipti á sinni dýrd fyrir
mynd nautsins er etur gras. 21. Þeir gleymdu
Gudi sínum frelsara, sem hafdi gjørt mikla
hluti í Egyptalandi, 22. kraptaverk í Hams-
landi vid sefhafid, 23. og hann ætladi ad af-
má þá, hefdi ei Móses hans útvaldi geingid í
ábyrgd vid hann, til ad snúa hans reidi frá
fordjørfun. 24. Og þeir forsmádu þad æski-
lega land, þeir trúdu ekki hans ordum, 25. og þeir
møgludu í sínum tjøldum, þeir løgdu ekki eyr-
un vid Drottins raust. 26. Og hann upplyfti
sinni hønd á móti þeim, svo ad þeir tortíndust
í eydimørkinni, 27. og þeirra nidjar féllu med-
al þjódanna og tvístrudust um løndin. 28. Og
þeir skrýddust fyrir Baal-Peor, og þeir átu af
fórnum til þeirra daudu (skurdgoda). 29. Og
þeir egndu hann til med sínu athæfi, og plága
braust inn á þá. 30. Þá tók Fineas sig til,
og héldt dóm, og plágunni linnti, 31. og hon-
um var reiknad þad til réttlætis frá kyni til kyns
eilíflega. 32. Og þeir styggdu hann vid Me-
riba vatn, og Móses mátti gjalda þeirra, 33.
því þeir særdu hans hjarta og hann taladi ógjæti-
lega med sínum vørum. 34. Þeir eydiløgdu
ekki þjódirnar einsog Gud hafdi skipad þeim,
35. heldur blønduduſt saman víd þjódirnar og
lærdu þeirra athæfi, 36. og dýrkudu þeirra
afgudi, og þeir urdu þeim ad snøru. 37. Og
þeir offrudu sínum sonum og dætrum til af-
gudanna, 38. og þeir úthelltu saklausu blódi,
sona sinna og dætra blódi, sem þeir fórnfærdu
Kanaans afgudum, svo ad blódskuld kom yfir
landid. 39. Og þeir flekkudu sig med sínum
verkum, og tóku framhjá (gudi) med sínu at-
hæfi. 40. Þá upptendradist Drottins reidi
gégn hans fólki og hann fékk vidbjód á sinni
erfd. 41. Og hann fékk þá þjódunum á vald,
og yfir þeim drottnudu þeirra ofsóknarmenn.
42. Og þeirra óvinir þreyngdu ad þeim, og
þeir urdu audmýktir undir þeirra hendi. 43.
Opt frelsadi hann þá, en þeir egndu hann til
med sínum áformum, og þeir hnigu nidur (í
eymd) fyrir þeirra misgjørnínga sakir. 44.
Samt leit hann til þeirra í þeirra naudum,
þegar hann heyrdi þeirra kall. 45. Og hann
minntist síns sáttmála, þeim til góds, og hann
ydradist þess eptir mikilleik sinnar miskunar.
46. Og lét þá alla vorkénna þeim, sem héldu
þeim herteknum. 47. Frelsa oss, Drottinn vor
Gud! og safna oss frá þjódunum, svo vér gét-
um súngid þínu nafni lof og hrósad oss af
þinni lofgjørd. 48. Lofadur sé Drottinn, Is-
raels Gud! frá eilífd til eilífdar, og allt fólk
segi: Amen! Lofid Drottinn!

# Fimta Bók.

## 107. Sálmur.

Þakklæti fyrir útlaganna frelsi.

1. Þakkid þér Drottni! því hann er gódur, því hans miskunsemi er eilíf. 2. Þetta segi þeir sem af Drottni eru leystir úr óvina valdi (hendi). 3. Frá løndunum hefir hann samansafnad þeim; frá austri og vestri, frá nordri og frá hafinu. 4. Þeir fóru viltir á eydimørkinni, á øræfa veginum, stad, sem þeir gjætu búid í, fundu þeir ekki. 5. Þeir voru húngradir og þyrstir, þeirra sál vanmegnadist í þeim. 6. Og þeir kølludu til Drottins í þeirra ángist, hann fríadi þá úr þeirra neyd, 7. og hann leiddi þá á réttann veg, og þeir komu til þess stadar sem þeir gátu búid í. 8. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskun og fyrir hans dásemdir vid mannanna børn; 9. því hann endurnærdi ørmagna sálir, og mettadi med gjædum húngradar sálir.

10. Þeir sem sátu í mirkri og daudans skugga, bundnir eymd og járnum — 11. af því þeir voru óhlýdnir Guds bodordum, og forsmádu rád ens hædsta, 12. þar fyrir audmýkti hann med mótgángi þeirra hjørtu, þeir féllu og þar var einginn sem hjálpadi. 13. Og þeir kølludu til Drottins í sinni ángist, og hann frelsadi þá úr þeirra vandrædum. 14. Hann leiddi þá úr mirkrinu og daudans skugga, og sundursleit þeirra fjøtra. 15. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskunsemi og fyrir hans dásemdir vid mannanna børn, 16. fyrir þad ad hann sundurbraut eirportin, og sundurhjó járngrindurnar. 17. Þeir fávísir, þeir pláguduſt fyrir sínar yfirtrodslur og fyrir sinna misgjørda sakir. 18. Þá velgdi vid øllum mat, og þeir voru nálægir daudans dyrum, 19. og þeir kølludu til Drottins í sinni ángist, úr þeirra neyd frelsadi hann þá. 20. Hann sendi sitt ord og læknadi þá og bjargadi þeim úr þeirra grøfum. 21. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskun og fyrir hans dásemdir vid mannanna børn, 22. og offri þakkarfórn og kunngjøri hans verk med gledisaung. 23. Þeir sem á skipum fara út á hafid og gégna sinni sýslan á þeim stóru vøtnum, 24. þeir sjá Drottins verk og hans dásemdir á djúpinu. 25. Hann taladi og þar kom stormvidri, sem hóf upp hafsins bylgjur. 26. Þeir lyptust til himna, og sigu nidur í afgrunnid, og þeim féllst hugur í neydinni. 27. Þeir hrøktust um kríng og rømbudu sem drukknir menn og øll þeirra ráddeild var þrotin. 28. Og þeir kølludu til Drottins í sinni ángist og hann hjálpadi þeim úr þeirra naudum. 29. Hann stødvadi þann mikla storm, og bylgjurnar þøgnudu. 30. Og þeir glødduſt þegar lygndi, og hann leiddi þá ad landi, eptir þeirra ósk. 31. Þakki þeir Drottni fyrir hans miskunsemi og hans dásemdir vid mannanna børn, 32. og vegsami hann á fólks samkomunni, og lofi hann á øldúnga fundinum.

33. Hann gjørdi árnar ad øræfum og vatnsrennsli ad þurrlendi, 34. frjóssamt land ad sandaudn, fyrir vondsku sakir þeirra sem þar bjuggu. 35. Hann gjørdi øræfin ad votlendi og þurrlendid ad vatnsrennsli, 36. og hann lét þá húngrudu búa þar, og þeir byggdu sér stad, sem þeir gjætu búid í. 37. Og þeir sádu akra, og þeir pløntudu víngarda, og þeir báru ríkuglegann ávøxt, 38. og hann blessadi þá, og þeir fjølgudu mikid; og fénadi þeirra fækkadi hann ekki. 39. En þeir mínkudu af þreingíng, ólukku og neyd. 40. Hann hafdi úthellt fyrirlitníng yfir høfdíngjana og lét þá villast um øræfi hvar einginn vegur er. 41. En hann lypti þeim fátæku upp úr þeirra eymd, og gjørdi ættirnar sem hjardir. 42. Þeir hrein-

skilnu sjá það og gledja sig, en allir þeir ráng-látu hljóta að loka sínum munni. 43. Hvør hygginn er, hann sjer þetta og tekur eptir Drottins miskunsemdum.

## 108. Sálmur.

(Sbr. Sálm. 57, 8—12. 60, 7—14).

1. Lofsálmur Davíðs. 2. Reiðubúið er mitt hjarta, ó Guð! eg vil sýngja og fagna, og mín sál vill líka gleðjast. 3. Vakna upp mitt hljóðfæri og harpa, eg vil vakna með morgunroðanum. 4. Þig vil eg vegsama, Drottinn! meðal fólksins, eg vil sýngja þér lof meðal þjóðanna. 5. Því þín miskunsemi nær til himins og þín trúfesti til skýanna. 6. Upplypt þér, ó Guð! yfir himnana, og þinni dýrð yfir alla jörðina. 7. Svo þínir elsku-legu verði fríaðir; hjálpa þú með þinni hægri hendi og bænheyr oss.

8. Guð talaði í sínum helgidómi, þar fyrir gleð eg mig, eg vil skipta Sikem og mæla dal-inn Súkot. 9. Gílead tilheyrir mér og Man-asse; Efraim er hlífð míns høfuðs. Júda er minn løggjafi, 10. Móab er mitt þvottakér, í Edom kasta eg mínum skóm. Yfir Filisteum vil eg hlakka. 11. Hvør mun flytja mig í þann rambyggilega stað? Hvør mun leiða mig til Edom? 12. Viltu ekki, ó Guð! sem út-skúfaðir oss, og fórst ekki út með vorum her? 13. Veittu oss hjálp í neyðinni, því ónýt er hjálp mannanna! 14. Með Guðs (hjálp) skulum vér vinna sigur, (hreisti verk), og hann mun niðurtroða vora óvini.

## 109. Sálmur.

Bæn móti óvinum.

1. Til saungmeistarans. Sálmur af Davíð. Guð minn! sem eg vegsama, þegi þú ekki, 2. því sá óguðlegi og hinn svikafulli, þeir hafa lokið upp sínum munni á móti mér, þeir tala til mín með ljúgandi túngu. 3. Með hatursfullum orðum umkríngja þeir mig, og stríða á móti mér án saka. 4. Í staðinn fyrir að eg elskaði þá, stóðu þeir á móti mér, og eg bað jafnan (fyrir þeim). 5. Þeir gjørðu mér íllt fyrir gott, guldu hatur fyrir elsku. 6. Set þann óguðlega yfir hann og Satan standi hon-um til hægri handar. 7. Frá dómi gángi hann sekur, og hans bæn verði að synd! 8. Hans dagar verði fáir, annar fái hans embætti, 9. hans børn verði føðurlaus og hans kona verði ekkja! 10. Hans børn flakki um kríng og snýki, og leiti sinnar nauðþurftar lángt frá þeirra auðu bústøðum! 11. Okurkallinn nái í allt hvað hann á, og útlendir ræni hans erfiði! 12. Eing-inn sé sá sem hafi elsku til hans, og einginn aumkist yfir hans munaðarleysíngja. 13. Hans niðjum verði útrudt; í øðrum lið verði þeirra nafn afmáð! 14. Hans feðra misgjørða skal minnst verða fyrir Drottni, og syndir hans móð-ur ei verða afmáðar! 15. Þær skulu ætíð vera fyrir Drottni, og hann skal útrídja þeirra minn-íng af jørðunni, 16. af því hann mundi ei til að gjøra miskunsemi, og ofsókti þann auma og fátæka mann, og þann, sem var hryggur í hjarta, allt til dauða. 17. Þareð hann elskaði bølvun-ina, svo komi hún yfir hann; fyrst hann hafði ekki lyst til blessunar, svo veri hún lángt frá hon-um! 18. Hann íklæði sig bølvuninni sem fati, hún renni inn í hans iður sem vatn, og í hans bein sem viðsmjør! 19. Hún verði honum sem fat er hann klæðist í og sem belti hvar með hann ætíð umgirðir sig! 20. Þessi verði laun minna mótstøðumanna af Drottni, og þeirra sem tala íllt um mig! 21. En þú Drottinn! Herra minn! aðstoða þú mig fyrir þíns nafns sakir, því þín miskunsemi er mikil, bjarga þú mér! 22. því eg er vesæll og fátækur, og mitt hjarta er sært í mér; 23. Eg líð í burt sem skuggi, þá hann leingist; eg verð burtrekinn sem eingispretta; 24.

mín kné veiklast af føstu, og mitt hold hefir einga fitu. 25. Eg hlýt ad vera þeirra athlæi, þegar þeir sjá mig, hrista þeir høfudin. 26. Hjálpa mér, Drottinn, minn Gud! frelsa mig eptir þinni miskunsemi, 27. ad þeir meigi vidkannast ad þad er þín hønd, ad þú, ó Drottinn! gjørdir þad. 28. Látum þá formæla, blessa þú! rísi þeir móti mér, en verdi til skammar, og þinn þénari gledji sig. 29. Mínir mótstødumenn íklædist smán, og sínni skømm ísæríst þeir sem kápu. 30. Eg vil innilega þakka Drottni med mínum munni, og medal margra vil eg hann vegsama. 31. Því hann stendur þeim fátæka til hægri handar til ad frelsa hann frá þeim sem dæma hann til lífláts.

## 110. Sálmur.

Guds smurdi.

1. Ljód af David. Drottinn sagdi mínum Drottni: settu þig mér til hægri handar þángad til eg legg óvini þína ad skør þinna fóta. 2. Drottinn mun rétta þér frá Síon veldissprotu síns kraptar, og segja: drottna þú midt á medal þinna óvina. 3. Þitt fólk fylgir þér fúslega á degi þíns kraptar í heilagri prýdi; eins og døggin af morgunrodans skauti, skulu þínir nidjar verda. 4. Drottinn sór og þess ydrast hann ekki; þú ert prestur ad eilífu uppá Melkisedeks máta. 5. Drottinn er hjá þinni hægri hendi, hann mun sundurmerja Kóngana á degi sínnar reidi. 6. Hann mun dæma þjódirnar og fylla land þeirra med líkum, og sundurmola høfudin af því vída landi. 7. Ur lækmum á veginum mun hann drekka, sídan mun hann høfdi sínu upplypta.

## 111. Sálmur.

Lofgjørd.

1. Lofid Gud! Drottinn, vil eg vegsama af øllu hjarta í søfnudi og á fundi hinna hreinskilnu. 2. Mikil eru Drottins verk, æskileg eptir allri þeirra unan. 3. Hátign og dýrd er hans framkvæmd og hans réttlæti varir eilíflega. 4. Endurminníng sínna stórmerkja hefir hann gjørt. Nádugur og miskunsamur er Drottinn. 5. Fædslu gaf hann þeim sem hann óttudust, hann man eilíflega til síns sáttmála. 6. Sinna verka krapt kunngjørdi hann sínu fólki, þegar hann gaf því þjódanna eign. 7. Verkin hans handa eru sannleiki og réttindi, réttsýn eru øll hans bodord. 8. Þau eru óbifanleg um aldur og eilífd, gjørd med sannleika og einlægni. 9. Lausn sendi hann sínu fólki, gjørdi sinn sáttmála eilífann. Heilagt og óttalegt er hans nafn. 10. Otti Drottins er upphaf vitskunnar, gód uppfrædíng fyrir alla þá sem gjøra þar eptir; hans lof varir eilíflega.

## 112. Sálmur.

Hrós hinna gudhræddu.

1. Lofid Gud! Sæll er sá madur sem óttast Drottinn, sem finnur mikinn føgnud í hans bodordum. 2. Voldugir munu hans nidjar verda á jørdunni, ætt hinna hreinskilnu mun blessast. 3. Nægtir og audæfi munu vera í þeirra húsum, og þeirra réttvísi varir ætíd. 4. Þeim rádvøndu upprennur ljós í myrkri. Gud er nádugur, miskunsamur og réttlátur. 5. Vel sé þeim manni sem miskunar og lánar, og gégnir sínni sýslan med réttvísi. 6. Því hann mun ekki bifast ad eilífu. Þess réttláta mun ávallt minnst verda. 7. Ill tídindi mun hann ekki hrædast; hans hjarta er rólegt; hann reidir sig á Drottinn. 8. Hans hjarta hefur vígi, hann mun ekkért hrædast, þángad til hann sjer sínn føgnud á sínum óvinum. 9. Hann útbítir, hann géfur þeim fátæku, hans réttlæti varir ætíd, hans høfud mun med vegsemd upphefjast.

10. Hinn ógudlegi mun sjá þad og ílskast, hann mun nísta tønnum og fá í sig uppdrátt. Ósk þeirra ógudlegu mun tapast.

## 113. Sálmur.

Lofgjörd Drottins.

1. Lofid Gud! lofid þér Drottins þénarar! lofid Drottins nafn! 2. Lofad sé nafnid Drottins, hédan í frá og ad eilífu. 3. Í frá sólarinnar uppgaungu og allt til hennar nidurgaungu sé nafnid Drottins vegsamad. 4. Drottinn er upphafinn yfir allar þjódir, yfir himnana hans dýrd. 5. Hvør er sem Drottinn vor Gud, sem býr hátt, 6. sem lítur lágt á himnana og á jørdina, 7. sem upphefur þann audvirdilega úr duptinu, og upplyptir þeim fátæka úr saurnum, 8. til ad setja hann hjá furstunum, hjá furstum síns fólks, 9. sem lætur þá ófrjóssömu búa í húsinu, sem glada barna módur. Lofid Drottinn!

## 114. Sálmur.

Burtförin úr Egyptalandi.

1. Þá Ísrael fór burt úr Egyptalandi, Jakobs hús frá því fólki sem taladi útlenda túngu, 2. vard Júda hans helgidómur og Ísrael hans herradæmi. 3. Hafid sá þad og flúdi; Jórdan hrøkk til baka, 4. fjøllin stukku sem hrútar, hædirnar sem únglømb. 5. Hvad var þér, þú sjáfarhaf! ad þú flúdir? þér Jórdan! ad þú hrøkkst til baka? 6. Ydur, þér fjøll! ad þér stukkud sem hrútar? þid hædir! sem únglømb? 7. Bifast þú jørd fyrir Drottins augliti, fyrir augliti Jakobs Guds! 8. sem gjørir vatnsríka tjørn úr klettinum, þann harda stein ad vatnsríkri uppsprettu.

## 115. Sálmur.

Drottinn sá sanni Gud.

1. Eigi oss, Drottinn! eigi oss, heldur þínu nafni sé heidur, fyrir sakir þinnar miskunar og trúfesti. 2. Hvar fyrir skyldu þjódirnar segja: hvar er nú þeirra Gud? 3. Vor Gud er í himnunum, allt hvad honum þóknast, þad gjørir hann.

4. Þeirra afgudir eru silfur og gull, gjørdir af manna høndum. 5. Munn hafa þeir, en géta ekki talad; augu hafa þeir, en géta ekki sjed, 6. þeir hafa eyru, en heyra ekki, nasir, en finna einga lykt. 7. Þeir hafa hendur, en géta ekkért med þeim gripid; fætur hafa þeir, en géta ekki geingid, og upp um sinn háls géta þeir ekki ordi komid. 8. Líkir þeim eru þeir sem gjøra þá; allir sem á þá treysta.

9. Ísrael! reiddu þig á Drottinn, hann er vor hjálp og vor skjøldur. 10. Arons hús, reidid ydur á Drottinn! hann er vor hjálp og vor skjøldur. 11. Þér sem óttist Drottinn, reidid ydur á Drottinn. Hann er vor hjálp, og vor skjøldur. 12. Drottinn minnist vor, hann blessar oss; hann blessi Ísraels hús! hann blessi Arons hús! 13. Hann mun blessa þá sem óttast Drottinn, þá smáu med þeim stóru. 14. Drottinn mun blessa ydur meir og meir, og ydar børn. 15. Blessadir erud þér af Drottni sem hefir gjørt himininn og jørdina. 16. Himininn gjørvallur er Drottins, en jørdina hefir hann mannanna børnum géfid. 17. Þeir daudu géta ei lofad Drottinn, ei heldur þeir sem komnir eru í þøgnina. 18. En vér, vér viljum lofa Drottinn, nú hédaní frá og ad eilífu. Lofid Drottinn!

## 116. Sálmur.

Þakkargjörd fyrir lidsinni.

1. Hvørsu gledur þad mig ad Drottinn heyrir mína raust og mína audmjúku bæn! 2. Því hann hneigdi sitt eyra til mín, alla mína daga vil eg hann ákalla. 3. Daudans fjøtrar umspentu mig, grafarinnar ángist var yfir mér; eg kéndi til ótta og hrigdar. 4. En eg ákalladi nafn Drottins, og sagdi: Drottinn! frelsa þú mína sál! 5. Nádugur er Drottinn og

réttlátur, og vor Gud miskunsamur. 6. Drottinn vardveitir þá einføldu. Eg var auméngi hann frelsadi mig. 7. Vertu nú aptur róleg, mín sál! því Drottinn hefir gjørt vel vid þig. 8. Því hann frelsadi mig frá daudanum, mitt auga frá gráti og minn fót frá falli. 9. Eg mun gánga fyrir Drottni á landi lifandi manna. 10. Eg trúdi, þó eg segdi: mikid verd eg ad lída! 11. Eg sagdi því eg var hissa: allir menn bregdast. 12. Hvørnig skal eg Drottni endurgjalda fyrir allar hans velgjørdir vid mig. 13. Frelsisins bikar vil eg upplypta a), og ákalla nafnid Drottins.

14. Mitt heiti vil eg Gudi greida í augsýn alls fólksins. 15. Dýrmætur er fyrir Drottni daudi hans heiløgu. 16. Heyr mig ó Drottinn! því eg em þinn þénari, sonur þinnar ambáttar, þú hefur leyst mín fjøtur; 17. þér vil eg offra þakkarfórn og ákalla Drottins nafn. 18. Mitt heit vil eg Drottni greida í alls fólksins augsýn, 19. í forgardinum vid Drottins hús, midt í þér, Jerúsalem! Lofid Drottinn.

## 117. Sálmur.

Lofgjørdar ávarp.

1. Lofid Drottinn allar þjódir, prísi hann allir lýdir. 2. Því hans miskun drottnar yfir oss, og Drottins trúfesti er eilíf. Lofid Drottinn!

## 118. Sálmur.

Sigurhróss Sálmur.

1. Þakkid þér Drottni, því hann er gódur og hans miskunsemi varir eilíflega. 2. Israel segi: eilíf er hans miskun. 3. Arons hús segi: eilíf er hans miskun. 4. Þeir sem óttast Drottinn segi: eilíf er hans miskun! 5. Í minni ángist ákalladi eg Drottinn, Drottinn bænheyrdi mig og veitti mér fríun. 6. Drottinn er med mér, eg mun ekki hrædast. Hvad géta mennirnir gjørt mér? 7. Drottinn er minn hjálpari, því vil eg gladur líta til minna offsóknarmanna. 8. Þad er betra ad setja sitt traust til Drottins, enn ad reida sig á mennina. 9. Þad er betra ad treysta Drottni, enn ad reida sig á høfdingjana. 10. Allar þjódir umkríngdu mig; í Drottins nafni, sagdi eg, skal eg britja þá nidur. 11. Þeir umkríngdu mig øllumeigin. Í Drottins nafni, sagdi eg, skal eg niðurhøggva þá. 12. Þeir umkríngdu mig sem bíflugur, þeir slokktust einsog eldur í þyrnum. Í Drottins nafni, sagdi eg, skal eg nidurbritja þá. 13. Þú (óvinur) hrintir mér, ad eg skyldi falla, en Drottinn hjálpadi. 14. Minn styrkur og minn saungur er Drottinn; hann vard mér ad lidi.

15. (Þar heyrist) fagnadar- og sigur-raust í tjaldbúdum hinna rádvøndu. Drottins hægri hønd gjørir kraptaverk. 16. Drottins hægri hønd er upphafin, Drottins hægri hønd gjørir kraptaverk. 17. Eg mun ekki deya, heldur lifa, og eg skal kunngjøra Drottins verk. 18. Ad sønnu typtadi Drottinn mig, en í daudann ofurseldi hann mig ekki. 19. Ljúkid upp fyrir mér réttlætisins porti, eg vil gánga inn um þad, eg vil þakka Drottni. 20. Þetta er Drottins port, þeir rádvøndu skulu inn um þad gánga. 21. Eg vil þakka þér, ad þú bænheyrdir mig, og hjálpadir mér. 22. Sá steinn sem byggíngarmennirnir burtkøstudu er ordinn ad hyrníngarsteini. 23. Þetta er skéd af Drottni; þad er undarlegt fyrir vorum augum. 24. Þetta er sá dagur (gledidagur) sem Drottinn gjørdi, føgnum og verum gladir í honum. 25. Drottinn! hjálpa þú! Drottinn! géf lukku! 26. Blessadur sé sá sem kémur í Drottins nafni, vér blessum ydur frá Drottins húsi. 27. Drottinn er Gud, hann lætur (byrtu) fyrir oss lýsa.

V. 13. *a.* Halda þakklætis veitslu í minning sirs frelsis.

Leidid fórnardýrid bundid med taug ad altar-
ishorninu. 28. Þú ert minn Gud, því vil eg
vegsama þig, minn Gud! eg vil lofa þig. 29.
Þakkid þér Drottni, því hann er gódur, því
hans miskun er eilíf.

## 119. Sálmur.

Gyllini Stafrof í 22 greinum.

Fyrsta Grein. 1. Sælir eru þeir hvørra
breytni er óstraffanleg, þeir sem gánga í Drott-
ins løgmáli; 2. sælir eru þeir sem halda hans
bodord, sem leita hans af øllu hjarta, 3. sem
ekkért rángt adhafast, heldur gánga á hans veg-
um. 4. Þú hefir bodid ad halda vandlega þín
bodord! 5. Æ! ad mínir vegir mættu þar
ad sveigjast, ad halda þín réttindi! 6. þá þarf
eg ei ad sneypast, er eg géf gaum øllum þín-
um bodum. 7. Eg vildi prísa þig med ein-
lægu hjarta, í því eg lærdi þína réttlátu dóma.
8. Þín réttindi vil eg halda; yfirgéf mig ekki
ofleingi. 2ur Grein. 9. Hvørnig gétur sá
úngi haldid sínum vegi hreinum? Med því ad
halda sig ad þínu ordi. 10. Eg leita þín
af øllu hjarta; láttu mig ekki villast frá þín-
um bodordum! 11. Í mínu hjarta geymdi
eg þitt ord, svo ad eg syndgadi ekki á móti
þér. 12. Lofadur sértu Drottinn! kénn mér
þín réttindi! 13. med mínum vørum upptel eg
alla dóma þíns munns. 14. Þínir vitnisburdir
gledja mig eins og mikill audur. 15. Þínar
skipanir ígrunda eg, eg hugleidi þína stigu.
16. Eg hefi unadsemd af þínum setníngum,
og gleimi ei þínum ordum. 3dja Grein.
17. Gjør þínum þjóni vel til, ad eg megi lifa
og halda þitt ord. 18. Opna mín augu ad
eg meigi sjá þad leyndardómsfulla í þínu løg-
máli. 19. Framandi er eg á jørdunni; fel ei
fyrir mér þín bodord! 20. Sundurkramin
er mín sál af laungun eptir þínum réttindum
alla tíma. 21. Þú straffar hina dramblátu,
þá bølvudu, þá sem víkja frá þínum bodordum.
22. Snú frá mér smán og fyrirlitníng, því eg
vardveiti þín bodord. 23. Þar sitja jafnvel
høfdíngjar og taka saman rád sín á móti mér;
en þinn þénari ígrundar þína setnínga. 24.
Já, þínir vitnisburdir eru mín unadsemd, þeir
eru mínir rádgjafar. 4da Grein. 25. Nid-
urbeigd í duftid er mín sál, endurlífga mig eptir
þínu ordi. 26. Eg segi frá mínum vegum og
þú bænheyrir mig, kénn mér þín réttindi! 27.
Kénn þú mér ad skilja veg þinna bodorda! svo
mun eg ígrunda þína leyndardóma. 28. Mín
sál drúpnar af hrygd, reis þú mig upp eptir
þínu ordi! 29. Snú frá mér lýginnar vegi,
og unn mér þíns løgmáls (þekkíngar)! 30.
Sannleikans veg vel eg, þinn rétt set eg fyrir
mig. 31. Eg hángi vid þína vitnisburdi;
Drottinn! lát mig ei verda til skammar! 32.
Veg þinna bodorda vil og hlaupa, þegar þú
hugsvalar mínu hjarta! 5ta Grein. 33.
Kénn mér, ó Drottinn! veg þinna réttinda, eg
skal fara hann allt til enda! 34. Uppfræd
þú mig, og eg vil vardveita þín løg, og halda
þau af øllu hjarta! 35. Lát mig gánga framm
veginn þinna bodorda, því eg hefi laungun til
hans! 36. Beig mitt hjarta til þinna vitnis-
burda, en ekki til gróda! 37. Snú mínum aug-
um frá hégómanum! vidhaltu mér á þínum
vegi! 38. Uppfylltu þitt ord vid þinn þénara,
vid þann sem þig óttast. 39. Burtsnú þeirri
minni smán, sem eg kvídi fyrir, því þínir
dómar eru gódir. 40. Sjá! eg hefi laungun
til þinna skipana, haltu mér vid þitt réttlæti;
6ta Grein. 41. Og lát þína miskun koma
yfir mig, ó Drottinn! þitt frelsi eptir þínu
ordi! 42. Og ad eg géti svarad þeim sem at-
yrda mig fyrir eitthvad, ad eg reidi mig á þitt
ord. 43. Og tak aldrei sannleiksins ord burt
frá mínum munni! því ad eg bíd þíns dóms;
44. Eg vil alltaf vardveita þitt løgmál ætíd og

æfinlega. 45. Og eg vil gánga um rúmgóðann veg, því að eg leita þinna skipana, 46. og eg tala um þína vitnisburði fyrir Kóngum, og skammast mín ekki. 47. Og eg skal hafa unaðsemd af þínum boðorðum, sem eg elska, 48. og upplypta mínum höndum til þinna boðorða sem eg elska, og eg ígrunda þín réttindi. 7da Grein. 49. Minnstu þess orðs til þíns þénara, á hvört þú létst mig vona; 50. það er mín huggun í minni eymd að þitt orð heldur mér við lífið. 51. Þeir dramblátu hæða mig ákaflega, en frá þínu løgmáli vík eg ekki. 52. Eg minnist þinna dóma frá gömlum tíðum, Drottinn! og huggast. 53. Ákaflega óþeit hefi eg á þeim ógudlegu, sem yfirgéfa þín lög. 54. Þín réttindi eru minn fagnaðarsaungur í minni útlegð. 55. Drottinn! á náttarþeli minnist eg þíns nafns og varðveiti þín lög. 56. Það er minn auður að eg held þínar skipanir. 8da Grein. 57. Eg segi: mín hlutdeild, ó Drottinn, er að halda þín boð. 58. Eg bið þig auðmjúklega af øllu hjarta, vertu mér náðugur eptir þínu orði! 59. Eg hugleiði mína vegu og sný mínum fótum til þinna vitnisburða. 60. Eg flýti mér, og tef ekki við að halda þín boðorð. 61. Hópur ógudlegra umkríngir mig, en eg gleymi ekki þínu løgmáli. 62. Um miðnætti fer eg á fætur til að þakka þér fyrir þína réttlátu dóma. 63. Eg held mig til þeirra sem þig óttast, og þeirra sem halda þín boðorð. 64. Jørðin er full, Drottinn! af þinni miskun, kénn mér þín réttindi! 9da Grein. 65. Drottinn! þú gjørðir þínum þénara vel til eptir þínu orði. 66. Kénn þú mér góðan skilníng og hygggindi, því eg trúi þínum boðorðum. 67. Áður enn eg varð auðmýktur, villtist eg, en nú varðveiti eg þitt orð. 68. Góður ert þú og góðgjarn, kénn mér þín réttindi. 69. Þeir dramblátu samantvinna lygar móti mér, en eg held þín boðorð af øllu hjarta, 70. tilfinníngarlaust eins og spik er þeirra hjarta, en eg hefi yndi af þínu løgmáli. 71. Það var mér gott að eg lítilækkaðist, svo að eg gjæti lært þín réttindi. 72. Betra er mér løgmál þíns munns, heldurenn þúsund (stykki) gulls og silfurs. 10da Grein. 73. Þínar hendur hafa myndað mig og tilbúið, géf mér skilníng að eg læri þín boðorð! 74. Þeir sem óttast þig sjá mig og gleðja sig, því eg reiði mig á þitt orð. 75. Drottinn! eg veit að þínir dómar eru réttir, og að þú lítilækkaðir mig af trúfesti. 76. Þín miskun veri mín huggun eptir sem þú hefir heitið þínum þjóni! 77. Láttu þína miskun koma yfir mig, að eg lifi, því þitt løgmál er mín unaðsemd. 78. Lát þá dramblátu verða til skammar, því þeir vilja án saka steypa mér, en eg ígrunda þínar skipanir. 79. Haldi þeir sig til mín sem þig óttast og sem þekkja þína vitnisburði. 80. Lát mitt hjarta hánga fast við þín réttindi, að eg ekki verði til skammar! 11ta Grein. 81. Mína sálu lángar til þíns hjálpræðis, eg reiði mig á þitt orð, 82. mín augu mæna til þíns orðs, eg segi: nær muntu hugga mig? 83. því eg er sem skinnbelgur a) í reik; eg gleymi ekki þínum réttindum. 84. Hvörsu margir eru dagar þíns þénara? nær viltu láta gánga dóm yfir mínum ofsóknarmønnum? 85. Þeir dramblátu grafa mér grafir, það er ekki gjørt eptir þínu løgmáli. 86. Øll þín boðorð eru sannleiki; þeir ofsækja mig án saka, hjálpa þú mér! 87. Lítið vantaði á að þeir hefðu útrudt mér af jørðunni, þó yfirgaf eg ekki þínar skipanir. 88. Varðveittu líf mitt eptir þinni miskunsemi, og eg vil varðveita vitnisburði þíns munns. 12ta Grein. 89. Eilíflega, Drottinn! stendur þitt orð støðugt í himninum. 90. Þín trúfesti varir frá kyni til kyns, þú festir jørð-

V. 83. *a.* Skorpinn eða magur af armæðu.

ína, og hún mun standa; 91. Eptir þínum løg-
um stendur allt enn þann dag í dag; því allt er
þér undirgéfið. 92. Hefdi þitt løgmál ekki
verid mín unun, þá hefdi eg fyrirfarist í minni
eymd. 93. Eg skal til eilífdar ekki gleyma þín-
um bodordum; því med þeim heldur þú mér vid
lífið. 94. Eg em þinn, frelsa þú mig, því eg
leita þinna skipana. 95. Hinir ógudlegu um-
sitja mig, til ad fyrirfara mér, en eg géf gaum
ad þínum vitnisburdum. 96. Allrar fullkomn-
unar endir hefi eg sjed, en þín bodord eru enda-
laus. 13da Grein. 97. Hvørsu mjøg elska
eg þitt løgmál! þad er mitt daglegt umhugsun-
ar efni. 98. Þín bodord gjøra mig hyggnari
enn mínir óvinir eru, því þau eru ávalt mín.
99. Eg er ordinn hyggnari enn allir mínir kénn-
endur, því þínir vitnisburdir eru mín umhugs-
an, 100. eg er vitrari ordinn enn øldúngarnir,
því eg hefi vardveitt þínar skipanir, 101. frá
øllum vondum vegi held eg mínum fótum apt-
ur, ad eg géti haldid þitt ord, 102. frá þínum
dómum vék eg ekki, því þú mentadir mig. 103.
Hvørsu eru þín ord sæt fyrir minn góm, sætari
enn hunáng fyrir minn munn! 104. af þínum
skipunum verd eg vitur, þarfyrir hata eg sérhvørt
lýginnar spor. 14da Grein. 105. Þitt ord
er lampi fóta minna og ljós á mínum vegum.
106. Eg hefi svarid og vil efna þad, ad halda
þín réttvísu løg. 107. Eg em mjøg beygdur,
Drottinn! vardveittu mitt líf eptir þínu ordi!
108. Láttu þér þókknast, Drottinn! þad viljuga
offur míns munns, og kénn mér þína dóma.
109. Mitt líf er ætíd í minni hendi (í hættu), þó
gleymi eg ekki þínu løgmáli. 110. Þeir ógud-
legu leggja snørur fyrir mig, en eg vík ekki frá
þínum skipunum. 111. Eg eigna mér eilífa
erfd, þína vitnisburdi, því þeir eru mín hjartans
unadsemd. 112. Eg hneigi mitt hjarta til ad
gjøra eptir þínum réttindum eilíflega og alltaf.
15da Grein. 113. Eg hata illar hugsanir, en
elska þitt løgmál; 114. þú ert mitt skjól og
skjøldur, á þitt ord reidi eg mig. 115. Víkid
frá mér þér illgjørdamenn, eg vil vardveita bod-
ord míns Guds! 116. Vidhaldtu mér eptir
þínu ordi, svo eg lifi, og láttu mig ekki verda til
skammar fyrir mína von! 117. Adstoda þú
mig ad eg frelsist, og ætíd sjái þín réttindi.
118. Þú útskúfar øllum þeim sem víkja frá
þínum réttindum, því til ónýtis eru þeirra svik.
119. Þú burtkastar øllum ógudlegum á jørdu
eins og hroda, því elska eg þína vitnisburdi.
120. Mitt hold skélfur af hrædslu fyrir þér, og
þína dóma óttast eg. 16da Grein. 121. Eg
hefi stundad réttindi og réttvísi, afhend mig ekki
þeim sem undirþrykki mig! 122. Abyrgstu þinn
þénara til góds, ad þeir dramblátu ekki undir-
þrykki mig! 123. Mín augu mæna eptir þínu
hjálprædi og eptir ordi þíns réttlætis. 124.
Gjør þú vid þjón þinn eptir þinni miskunsemi,
og kénn mér þín réttindi! 125. Eg em þinn
þjón, uppfræd þú mig! ad eg géti þekkt þína
vitnisburdi. 126. Tími er til kominn ad þú,
Drottinn! takir þig til, þeir hafa brotid þín løg.
127. Þar fyrir elska eg þín bodord meir enn
gull, já meir enn skírt gull. 128. Þar fyrir
held eg allar þínar skipanir réttar, eg hata all-
ar lýginnar gøtur. 17da Grein. 129. Þín-
ir vitnisburdir eru furdanlegir (dásamlegir), því
vardveitir þá mín sál. 130. Þinna orda út-
skíring upplýsir og gjørir þá einføldu vísa.
131. Eg opna minn munn af eptirlángan, því
eg hefi gyrnd til þinna bodorda, 132. snú þér
til mín, og vertu mér miskunsamur! eins og
sanngjarnt er þú sért, þeim sem elska þitt nafn.
133. Gjørdu minn gáng stødugann med þínu
ordi, og lát eingin rángindi drottna yfir mér!
134. Leystu mig frá ofbeldi mannanna, ad eg
haldi þínar skipanir. 135. Lát þitt andlit lýsa
þínum þénara, og kénn mér þín réttindi. 136.
Táraflód nidursteypist úr mínum augum, vegna

þeirra sem ekki halda þitt løgmál. 18da Grein. 137. Réttlátur ertu Drottinn! og réttir eru þínir dómar. 138. Þú býdur réttvísi og mikinn sannleika í þínum løgum. 139. Mín vandlætíngasemi deydir mig, útaf því ad mínir mótstødumenn gleyma þínum ordum. 140. Þitt ord er mjøg vel hreinsad, og þinn þjón elskar þad. 141. Eg er lítilmótlegur og fyrirlitinn, enn eg gleymi ekki þínum bodordum. 142. Þitt réttlæti er eilífur réttur, og þitt løgmál er sannleiki. 143. Angist og þreingíng hitta mig, en þín bodord eru mín unadsemd. 144. Réttvísi þinna skipana er eilíf, uppfræd þú mig, svo lifi eg. 19da Grein. 145. Eg kalla af øllu hjarta, bænheyr mig, Drottinn! ad eg haldi þín réttindi! 146. Eg kalla til þín, hjálpa þú mér, svo ad eg haldi þína setníngа, 147. fyrrenn dagar kalla eg, á þitt ord reidi eg mig. 148. Mín augu verda fyrri til, enn næturvaktirnar, ad íhuga þitt ord. 149. Heyr mína raust, Drottinn! eptir miskun þinni, vidhaldtu mínu lísi eptir þínu réttlæti. 150. Þeir nálægja sig mér, sem fara med snidugar rádagjørdir, frá þínu løgmáli eru þeir lángt í burtu. 151. Þú ert nálægur, Drottinn! og øll þín bodord eru sannleiki, 152. fyrir laungu sídan vissi eg þad um þín réttindi, ad þú hefir þau eilíflega grundvallad. 20ta Grein. 153. Sjá þú eymd mína, og frelsa mig! því þínu løgmáli gleymi eg ekki. 154. Framfylg þú máli mínu, og frelsa mig, haltu mér lifandi fyrir sakir þíns ords. 155. Lángt frá þeim ógudlegu er frelsid, því þeir leita ekki þinna réttinda. 156. Þín miskunsemi, Drottinn! er mikil, lát mig lifa eptir þínum dómum. 157. Margir eru mínir mótstødumenn og ofsóknarmenn, frá þínum vitnisburdum vék eg ekki. 158. Eg sje þá sem breita svikſamlega, og hefi vidbjód á þeim, af því þeir halda ekki þitt ord. 159. Sjá, hvørsu ég elska þínar skipanir, Drottinn! endurlífga mig eptir þinni miskunsemi. 160. Høfudsumma þíns ords er sannleiki og ad eilífu vara allir þínir réttlátu dómar. 21ta Grein. 161. Høfdíngjarnir ofsækja mig án saka, en mitt hjarta er óttaslegid fyrir þínu ordi. 162. Eg gled mig vid þitt ord, eins og sá sem fær mikid herfáng. 163. Lýgi hata eg og hefi vidbjód þar á, en þitt løgmál elska eg. 164. Sjøsinnum á dag lofa eg þig, sakir þinna réttvísu dóma. 165. Mikinn frid hafa þeir sem elska þitt løgmál, og eingin ásteitíng vofir yfir þeim 166. Eg bíd þíns hjálpræðis, Drottinn! og gjøri eptir þínum bodordum. 167. Mín sál vardveitir þína vitnisburdi og eg elska þá mikid. 168. Eg held þín bodord og þína vitnisburdi, því allir mínir vegir eru fyrir þér (augljósir). 22ur Grein. 169. Láttu mitt kall koma fyrir þitt auglit, Drottinn! géf mér skilníng eptir þínu ordi. 170. Lát mína audmjúka bæn koma fyrir þig, frelsa mig eptir þínu lofordi! 171. Af vørum mínum skal þitt lof útstreyma, því þú kénnir mér þín réttindi. 172. Mín túnga skal syngja þitt ord, þvíad øll þín bodord eru rétt. 173. Láttu þína hønd vera mér til lids, því eg hefi útvalid þínar skipanir. 174. Drottinn! eg hefi laungun eptir þínu hjálpræði, og þitt løgmál er mín unan. 175. Láttu mína sál lifa og lofa þig, og þína dóma hjálpa mér. 176. Eg villist sem týndur saudur, leita þú ad þínum þjón, því þínum bodordum gleymi eg ekki.

## 120. Sálmur.

Kvørtun yfir óvinum.

1. Stigandi Sálmur. Til Drottins kalla eg í minni neyd og hann bænheyrir mig.

V. 1. Sumir kalla þessa Sálma ferda Sálma, adrir halda nafnid sé dregid af laginu, eda efninu. Ordid þydir eiginlega: Stiga, uppgáng.

2. Drottinn! frelsa mína sál frá lýginnar vørum og svikanna túngu. 3. Hvad géfur þér? hvad gagnar þér svikanna túnga? 4. (Hún er eins og) stríðsmannsins hvøssu pílur, eins og glædur einirberja trésins. 5. Vei mér! ad eg vard ad vera útlendur í Armenía Mesek, og búa í Arabía Kedars tjaldbúdum, 6. ofleingi hefi eg búid hjá þeim sem fridinn hata. 7. Eg em eintómur fridur, en þegar eg tala (um frid), hefja þeir stríd.

## 121. Sálmur.

Von um Drottins lidsinni.

1. Stígandi Sálmur. Eg lypti mínum augum til fjallanna, hvadan mín hjálp mun koma. 2. Mín hjálp kémur frá Drottni, sem gjørdi himin og jørd. 3. Hann mun ekki láta þinn fót rasa, hann þinn vaktara sifjar ekki, 4. sjá! hann sofnar ekki, Israels vaktari sefur ekki. 5. Drottinn er sá sem vaktar þig, Drottinn er þín hlíf, hann er þér til hægri handar. 6. Á dagin mun sólin ekki ljósta þig, og ekki túnglid á nóttunni. 7. Drottinn mun vardveita þig frá øllu illu, hann mun geyma þína sál. 8. Drottinn mun vardveita þinn inngáng og útgáng frá því nú er og til eilífrar tídar!

## 122. Sálmur.

Gledi yfir ad koma til Jerúsalem.

1. Stígandi Sálmur af Davíd. Gladur verd eg þegar þeir segja vid mig: látum oss gánga í hús Drottins. 2. Vorir fætur eru (nú þegar) í þínum portum Jerúsalem. 3. Jerúsalem, þú velbygda, sem borg samteingd. 4. Þángad fara kynkvíslirnar, Drottins kynkvíslir, þad eru løg fyrir Israel, til ad prísa nafnid Drottins. 5. Því þar standa dómstólar, Davíds húss stólar. 6. Oskid Jerúsalem heilla! hafi þeir lukku, sem elska þig. 7. Fridur sé innan þinna veggja, rósemi í þínum høllum, 8. fyrir vina minna og brædra sakir, segi eg: fridur sé med þér! 9. fyrir sakir húss ins vors Drottins, vors Guds, vil eg leita þíns besta, (óska þér góds).

## 123. Sálmur.

Andvarp í ófridi.

1. Ferda Sálmur edur uppgaungu Sálmur. Til þín, sem situr á himni, upplypti eg mínum augum. 2. Sjá! einsog þénarans augu líta uppá hønd húsbóndans, eins og þjónustukvinnunnar augu uppá hønd sinnar húsmódur, svoleidis líta vor augu til Drottins vors Guds, þángad til hann verdur oss nádugur. 3. Vertu oss nádugur, Drottinn! vertu oss nádugur, því vér erum ofmettir af fyrirlitníngu. 4. Vor sál er fullmett af spotti hinna drambláta, af fyrirlitníng hinna drambsømu.

## 124. Sálmur.

Þakklæti og lofgjørd.

1. Uppgaungu Sálmur af Davíd. Hefdi Drottinn ei verid med oss (svo segi Israel): 2. Hefdi Drottinn ei verid med oss þegar menn risu á móti oss, 3. þá hefdu þeir svelgt oss lifandi, þegar þeirra reidi var gégn oss upptendrud; 4. þá hefdu vøtnin streymt yfir oss, vatnsføllin geingid yfir vor høfud, 5. þau uppbelgdu vøtn hefdu geingid oss yfir høfud. 6. Lofadur sé Drottinn! sem ekki lét oss verda ad brád fyrir þeirra tennur, 7. vor sál er sloppin, einsog fugl úr snøru fuglafángarans; snaran sveik, vér sluppum. 8. Vor hjálp er nafn Drottins, hans sem gjørdi himin og jørd.

## 125. Sálmur.

Trúartraust á Drottni.

1. Uppgaungu Sálmur. Þeir sem reida sig á Drottinn eru eins og Síonsfjall sem ekki bifast, heldur stendur eilíflega. 2. Allt í

kríngum Jerúsalem eru fjøll, svoleidis er Drottinn allt í kríngum sitt fólk, frá því nú og til eilífrar tídar. 3. Því veldisspíra ó-gudlegleikans skal ekki hvíla yfir hlutdeild hinna ráðvøndu, til þess ad hinir rádvøndu útrétti ekki sínar hendur til ránginda.

4. Drottinn gjør vel vid þá gódu og þá frómhjørtudu. 5. En hina sem beigja af leid á krókótta vegu, mun Drottinn láta fara ásamt med þeim, sem rángindi adhafast. Fridur sé yfir Israel!

## 126. Sálmur.

Gledi yfir lausn úr útlegdinni.

1. Uppgaungu Sálmur. Þegar Drott-inn fór heim med Síons fánga, vorum vér sem í draumi. 2. Þá var vor munn-ur fullur af hlátri, og vor túnga full af gledisaung; þá søgdu menn medal þjód-anna: mikla hluti hefir Drottinn gjørt vid þessa. 3. Já, mikla hluti hefir Drottinn gjørt vid oss, því erum vér gladir. 4. Drottinn flyttu tilbaka vora herteknu, eins og þá veitt er læk-jum á þurrlendi. 5. Þeir sem sá med tár-um, munu uppskéra med gledisaung. 6. Grát-andi geingur sádmadurinn og ber sádid sem á ad sá, en hann kémur aptur med gledisaung, þegar hann ber heim kornbindinin.

## 127. Sálmur.

Drottinn byggir húsid. Géfur børn.

1. Uppgaungu Sálmur af Salómon. Ef Drottinn byggir ekki húsid, þá erfida smidirnir til einkis. Ef Drottinn vaktar ekki stadinn, þá vaka vaktararnir til ónýtis. 2. Ad þarfleysu farid þér snemma á fætur, og vakid leingi, etid ydar braud sem aflad er med víli; því hann géfur sínum ástvinum þad sama sofandi. 3. Sjá! børn eru Drottins gjøf. Lífsins ávøxtur umbun. 4. Eins og pílur í hendi stridsmannsins, svo eru úngdómsins syn-ir. 5. Sæll er sá madur sem hefir fyllt sitt pílna koffur med þeim; þeir skulu ei verda til minkunar þegar þeir tala vid sína óvini í portinu (fyrir rétti).

## 128. Sálmur.

Sæla ens gudhrædda.

1. Uppgaungu Sálmur. Sæll er hvør sá sem óttast Drottinn, sem geingur á hans vegi! 2. Ávøxtinn af erfidi þinna handa muntu eta. Sæll ertú! þér vegnar vel. 3. Þín kona mun vera sem frjóffamt víntré innst í þínum híbýlum; þín børn eins og vidsmjørs greinir kríngum þitt bord. 4. Sjá! þannig mun sá madur blessast, sem óttast Drottinn. 5. Drottinn mun blessa þig frá Síon, og þú munt sjá Jerúsalems velgengni alla daga þíns lífs. 6. Þú munt sjá børn þinna barna. Fridur sé yfir Israel!

## 129. Sálmur.

Drottinn eydileggur ógudlega.

1. Uppgaungu Sálmur. Þeir þreyngdu ad mér nógsamlega frá barnæsku, (svo segir Israel). 2. Þeir þreingdu ad mér nógsam-lega frá mínum úngdómi, og þó gátu þeir ekki yfirbugad mig. 3. Á mínu baki plægdu plógmennirnir, þeir drógu laung sín plógfør. 4. Drottinn er réttvís, hann hjó á reipi hinna ógudlegu. 5. Þeir munu sneypast og hørfa til baka, allir sem Síon hata. 6. Þeir skulu verda sem gras á þekju, er visnar fyrr enn nokkur upprætir þad, 7. af hvørju sláttu-madurinn ekki fyllir sína hønd, eda bindínga-madurinn sitt fáng. 8. Og þeir sem fram hjá fara segja ekki: Drottins blessan sé yf-ir ydur! vér blessum ydur í nafni Drott-ins!

## 130. Sálmur.

Bæn. Trúartraust. Von.

1. Uppgaungu Sálmur. Ur djúpinu kalla eg til þín, Drottinn! 2. heyr þú Drottinn, mína raust! lát þín eyru hyggja ad røddu minnar grátbeidni! 3. O Drottinn! ef ad þú vilt muna misgjørdir, Drottinn! hvør gétur þá stadist? 4. Nei, hjá þér er fyrirgéfning, svo ad menn óttist þig. 5. Eg bíd eptir Drottni, mín sál vonar, eg reidi mig á hans ord. 6. Min sál bídur Drottins, meir enn vaktarar á morgnana, sem vænta morgunsíns. 7. Israel! vona þú uppá Drottinn, því hjá Drottni er miskunsemi; og mikil endurlausn er hjá honum. 8. Hann mun frelsa Israel af øllum hans misgjørdum.

## 131. Sálmur.

Audmýkt. Rómsemi. Von.

1. Uppgaungu Sálmur Davíds. Drottinn! mitt hjarta er ekki drambsamt, og mín augu eru ekki stórlátleg, og eg fæst ei vid þad, sem ofmitid er fyrir mig, og mér ofvaxid. 2. Hefi eg ekki gjørt sál mína kirrláta og rólega; eins og barnid vid módurinnar brjóst, þegar þad er vanid af brjósti, eins og þad afvanda barn, svo er mín sál í mér. 3. Vona á Drottinn, Israel! frá því nú er og til eilífrar tídar.

## 132. Sálmur.

Lofsaungur vid inngaungu til Drottins bústadar.

1. Uppgaungu Sálmur. Drottinn! mundu til Davíds mótgángs, 2. sem sór Drottni, sem gjørdi heit þeim volduga Jakobs: 3. „Eg vil ei gánga í tjaldbúd míns heimilis, eg vil ekki stíga í mína sæng. 4. Mín augu vil eg ekki láta sofa, ekki heldur mína augnahvarma dotta, 5. fyrr enn eg finn stad handa Drottni, bústad þeim volduga Jakobs". 6. Sjá! vér heyrdum, ad hann, (bústadurinn) væri í Efrata, (Síló, Jósb. 18, 1). Vér fundum hann á Jaars (Skógarins) vøllum, (Kirjat Jearim, 1 Sam. 6, 21). 7. Látum oss nú inngánga í hans bústad, og tilbidja fyrir hans fótskør.

8. Drottinn! stíg þú upp til þíns hvíldarstadar, þú og ørk þinnar dýrdar. 9. Þínir prestar íklædist réttlætinu, og þínir heiløgu fagni. 10. Sakir Davíds þíns þénara, útskúfa ei þínum smurda! 11. Drottinn sór Davíd sannan eid, frá honum mun hann ekki gánga, og sagdi: „ávøxt þíns lífs mun eg setja í þitt hásæti; 12. ef þín børn halda minn sáttmála og mína vitnisburdi, sem eg mun kénna þeim, þá skulu og þeirra børn sífeldt og ætíd sitja í þínu hásæti". 13. Já, Drottinn hefir útvalid Síon, hann valdi sér Síon til bústadar og sagdi: 14. þetta er sífeldt og ætíd minn hvíldarstadur, hér vil eg búa, því eg kaus mér hér ad vera. 15. Hennar (nl: Síons) bjargrædi mun eg ætíd blessa; hennar fátæklínga mun eg metta med braudi, 16. og hennar presta mun eg klæda med hjálprædi, og hennar heiløgu skulu vissulega fagna. 17. Þar mun eg láta Davíds makt vaxa, tilreida skridljós mínum smurda. 18. Hennar óvini vil eg forsmáninni klæda; en á hennar høfdi skal kórónan skína.

## 133. Kapítuli.

Hrós eindrægninnar.

1. Uppgaungu Sálmur af Davíd. Sjá! hvørsu ágætt og elskulegt þad er fyrir brædur ad búa saman. 2. Þad er eins og hid góda vidsmjør sem nidurdrípur af høfdinu á skéggid, á Arons skégg, já, nidurslýtur á hans klæda fald, eins og døgg á Hermon, 3. sem sú døgg er nidurfellur á Síons fjall, því þar hefir Drottinn fyrirheitid blessan og lífi (lukku) um aldur og ad eilífu.

## 134. Sálmur.

Lofsaungur vid þjónustugjørdina.

1. Uppgaungu Sálmur. Sjá! lofid

Drottinn, allir hans þénarar, sem á næturnar standid í Drottins húsi! 2. Upplyptid ydar höndum til helgidómsins, og lofid Drottinn. 3. Þá mun Drottinn blessa ydur frá Síon, hann sem gjördi himininn og jördina.

## 135. Sálmur.

Lof Drottins dásemdarverka. Afgudir ónýtir.

1. Lofid Gud! lofid Drottins nafn! lofid hann, þér Drottins þénarar! 2. Þér sem standid í Drottins húsi, í vors Guds húss forgardi. 3. Vegsamid Drottinn! því Drottinn er gódur. Sýngid lof hans nafni, því hann er yndislegur. 4. Því Drottinn útvaldi sér Jakob, Israel sér til eignar.

5. Eg veit ad Drottinn er mikill, ad vor Herra er meiri enn allir gudir. 6. Drottinn gjörir allt hvad honum þóknast á himni og jördu, í hafinu og í öllum djúpum. 7. Hann lætur ský uppstíga frá jardarinnar endum; eldíngar gjörir hann og regn; hann sendir vinda úr sínum hirdslum. 8. Hann deyddi frumburdina í Egyptalandi, bædi manna og fénadarins. 9. Hann sendi yfir þig teikn og stórmerki, Egyptaland! yfir Faraó og alla hans þegna. 10. Hann lagdi ad velli margar þjódir, og deyddi volduga Kónga. 11. Síhon Amoríta Konúng, og Og, Kónginn af Basan; og alla Kóngana í Kanaan. 12. Og hann gaf ad erfd þeirra land Israel, sínu fólki. 13. Drottinn, þitt nafn er eilíft! þín minníng varir frá kyni til kyns. 14. Því Drottinn dæmir sitt fólk, og miskunar sínum þénurum.

15. Þjódanna afgudir eru silfur og gull, gjördir af manna höndum. 16. Munn hafa þeir, en tala ekki; augu en sjá ekki. 17. Eyru hafa þeir, en heyra ekki, og einginn andardráttur er í þeirra munni. 18. Líkir þessum eru þeir sem þá gjöra, já, sérhvörr sem reidir sig á þá.

19. Israels hús! lofa þú Drottinn! Arons hús! lofid Drottinn! 20. Leví hús! lofi Drottinn! allir þér sem óttist Drottinn, lofid Drottinn! 21. Lofadur sé Drottinn í Síon! hann sem býr í Jerúsalem! lofid Drottinn.

## 136. Sálmur.

Lofsálmur.

1. Þakkid þér Drottni! því hann er gódur, því hans miskunsemi varir eilíflega. 2. Þakkid Gudi gudanna, því eilíf er hans miskunsemi. 3. Þakkid herranna Herra! því eilíf er hans miskunsemi. 4. Hann sem einn gjörir dásemdarverkin, því eilíf er hans miskunsemi; 5. honum sem gjördi himnana med vísdómi, því eilíf er hans miskunsemi. 6. Honum sem festi jördina á vötnunum, því eilíf er hans miskunsemi. 7. Honum sem gjördi þau stóru ljós; því eilíf er hans miskunsemi. 8. Sólina til ad stjórna á dagin, því eilíf er hans miskunsemi. 9. Túnglid og stjörnurnar til ad stjórna á nóttunni. 10. Honum sem deyddi frumburdi hinna Egyptsku, því eilíf er hans miskunsemi; 11. og útleiddi frá þeim Israel, því eilíf er hans miskunsemi, 12. med styrkri hendi og útréttum armi; því eilíf er hans miskunsemi. 13. Honum sem skipti raudahafinu í tvo hluti; því eilíf er hans miskunsemi, 14. og lét Israel þar í gégnum gánga, því eilíf er hans miskunsemi; 15. og steypti Faraó og hans her í hafid rauda, því eilíf er hans miskunsemi. 16. Honum sem leiddi sitt fólk um eydimörkina, því eilíf er hans miskunsemi. 17. Honum sem feldi mikla Kónga, því eilíf er hans miskunsemi; 18. og drap volduga Kónga, því eilíf er hans miskunsemi. 19. Síhon Amoríta Kóng, því eilíf er hans miskunsemi, 20. og Og Kónginn af Basan, því eilíf er hans miskunsemi. 21. Og þeirra land gaf ad erfd, því eilíf er hans miskunsemi, 22. sínum þén-

ara Israel að erfð, því eilíf er hans miskunsemi. 23. Honum sem minntist vor, þá vér vorum undirþrykktir, því eilíf er hans miskunsemi. 24. Og sleit oss úr hendi vorra óvina, því eilíf er hans miskunsemi. 25. Honum sem géfur fæðu øllu holdi, því eilíf er hans miskunsemi. 26. Þakkið himnanna Guði! því eilíf er hans miskunsemi.

## 137. Sálmur.

Skapraun herleiddra í Babýlon.

1. Við Babýlons ár sátum vér, og grétum, þegar vér minntunst á Síon, 2. þar heingðum vér vorar hørpur í greinir trjánna, 3. þá heimtu þeir, sem høfðu oss í haldi, af oss saung, og vorir undirþrykkjarar gleði, og søgðu: sýngið oss lofsaung um Síon! 4. Hvørnig skyldum vér sýngja lofsaung Drottins í framandi landi! 5. Efað eg gleymi þér Jerúsalem, svo gleymi mér mín hægri hønd. 6. Mín túnga festist við minn góm, ef eg ei man til þín, ef eg ekki tek Jerúsalem fram yfir mína mestu gleði. 7. Drottinn! minstu Edoms barna á Jerúsalems (vitjunar) degi, þeirra sem søgðu: afmáið, afmáið allt að hennar grundvelli! 8. Babels dóttir! þú sem eyðileggur! vel verði þeim sem endurgéldur þér það sem þú hefir við oss gjørt. 9. Vel verði þeim sem tekur þín brjóstbørn, og slær þeim niður við stein.

## 138. Sálmur.

Þakklæti fyrir liðsinni.

1. Sálmur af Davíð. Eg vil þakka þér af øllu mínu hjarta, í Guðs augsýn vil eg vegsama þig. 2. Eg vil knékrjúpa fyrir þínu heilaga musteri, og prísa þitt nafn, fyrir þína miskun og trúfesti, því framyfir allt hefir þú gjørt þitt nafn og þitt orð vegsamlegt. 3. Þegar eg ákallaði þig, bænheyrðir þú mig; þú gafst mér hug, og styrk minni sálu. 4. Þig, ó Drottinn! skulu allir jarðarinnar Kóngar prísa, þegar þeir heyra orðin þíns munns. 5. Og þeir skulu sýngja um herrans veg, því mikil er Drottins dýrð. 6. Já, upphafinn er Drottinn, en hann lítur niður til hins lítilmótlega, og þann drambláta þekkir hann lángt frá. 7. Þóað eg ráfi miðt í þreingíngu, heldur þú mér lifandi; móti reiði minna óvina útréttir þú þína hønd, og frelsar mig með þinni hægri hendi. 8. Drottinn mun framkvæma það fyrir mig. Drottinn þín miskun er eilíf. Yfirgéf þú ekki verkin þinna handa.

## 139. Sálmur.

Guð ransakar hjørtun.

1. Til hljóðfærameistarans. Sálmur af Davíð. Drottinn þú ransakar og þekkir mig. 2. Hvørt sem eg sit eða stend upp, þá veitstú það. Þú skynjar mínar hugrenníngar áleingdar. 3. Minn gáng og mitt legurúm skoðar þú, og alla mína vegi þekkir þú nákvæmlega. 4. Því þar er ekki eitt orð á minni túngu, að þú, Drottinn! ekki vitir það alltsaman. 5. Þú ert fyrir framan mig, og að baki mér, og heldur yfir mér þinni hendi. 6. Að skilja þetta er mér ofvaxið, það er mér of hátt, eg gét ei náð því. 7. Hvørt gét eg farið frá þínum anda? Hvørt flúið frá þínu augliti? 8. Fari eg upp í himininn þá ertu þar; gjøri eg undirheima að mínu legurúmi, þá ertu þar. 9. Tæki eg vængi morgunroðans, og byggi við hið ysta haf, 10. einnig þar mundi þín hønd leiða mig, og þín hægri hønd halda mér føstum. 11. Þó eg segði: myrkrið yfirfalli mig, og nóttin sé ljós í kríngum mig; 12. sjálf dymman er ekki dymm hjá þér, og nóttin lýsir sem dagurinn, myrkrið sem ljós. 13. Því þú hefir myndað mín nýru, þú hefir ofið mig í móðurlífi. 14. Eg vil vegsama þig fyrir það eg svo dásamlega er orð-

inn til; merkileg eru þín verk, það kannast mín sál við næsta vel. 15. Mín bein voru þér ei ókunnug, þá eg var í leini gjørdur, þegar eg var myndadur nidri á jørdunni. 16. Þín augu sáu mig, þegar eg enn nú var ómyndadur, og allt var skrifad í þína bók, dagarnir ádur enn einn af þeim var til. 17. En, ó Gud! hvørsu óskiljanlegar eru mér þínar hugsanir, hvørsu mikil er þeirra tala! 18. Vilji eg telja þær, svo eru þær fleiri enn sandkornin. Vakni eg, er eg enn nú hjá þér. 19. O ad þú, Gud! vildir sálga þeim ógudlega! Þid blódgírugu menn! víkid frá mér. 20. Þá sem tala syndsamlega móti þér; sem brúka hégómlega þitt nafn, 21. þína óvini, Drottinn! skyldi eg ei hata þá, sem hata þig? og hafa vidbjód á þeim, sem rísa móti þér? 22. Med fullkomnu hatri hata eg þá, þeir eru mínir óvinir. 23. Ransaka mig, Gud! og þekktu mitt hjarta, prófa mig, og þekktu mínar hugsanir. 24. Sjá þú hvørt eg er á ólukku vegi, og leid mig á eilífdarinnar veg!

## 140. Sálmur.

*Bæn móti óvinum.*

1. Til hljódfæirameistarans, Sálmur af David. 2. Frelsa mig, Drottinn! frá þeim vondu mønnum, vardveittu mig, fyrir ofbeldismønnunum 3. sem hugsa íllt í hjartanu, sem hvørn dag vekja stríd. 4. Þeir ydda sínar túngur sem høggormar, nødru eytur er undir þeirra vørum, (málhvíld). 5. Vardveit mig, Drottinn! frá armi hinna ógudlegu. Vakta mig fyrir ofbeldismønnunum, sem hugsa um ad leggja ásteitíngu fyrir minn fót. 6. Þeir dramblátu leggja snørur og streingi fyrir mig, þeir útþenja net á veginum, tálgildrur leggja þeir fyrir mig, (málhvíld). 7. Eg segi vid Drottinn: þú ert minn Gud, snú, ó Drottinn! þínu eyra ad raust minnar grátbeidni! 8. Drottinn! Herrann er styrkur míns frelsis! þú hlífir mínu høfdi á bardagans degi. 9. Veittu ekki, Drottinn! þeim ógudlega hans ósk. Láttu hans rádagjørd ekki fá framgáng, þeir mundu annars upphroka sér, (málhvíld). 10. Fyrirlidar, þeirra sem umkríngja mig, lát athæfi þeirra vara koma þeim í koll. 11. Glódum sé yfir þá steypt, hann láti þá detta í eldinn, í djúpar grafir, ad þeir ekki standi upp. 12. Madurinn med (þá vondu) túngu stendst ekki á jørdunni; sá ógudlegi ofbeldismadur skal ódar rekast í fordjørfun. 13. Eg veit ad Drottinn tekur ad sér málefni hins auma, og útvegar rétt þeim fátæka. 14. Já, þeir rádvøndu munu vegsama þitt nafn. Þeir hreinskilnu búa fyrir þínn augliti.

## 141. Sálmur.

*Bæn móti óvinum.*

1. Hljódfæirameistaranum, Sálmur af David. Drottinn! eg hrópa til þín! flýttu þér til mín! legdu eyrun vid minni raust þegar eg kalla til þín! 2. Mín bæn komi sem reykur fyrir þig, minna handa upplyptíng sem kvøldfórn. 3. Settu vørd fyrir minn munn, og vaktadu dyr minna vara. 4. Lát ekki mitt hjarta beigjast til nokkurs ílls, til ad adhafast ógudleg verk med mønnum sem gjøra rángt, ad eg ekki eti af þeirra krásum. 5. Sá rádvandi slái mig, þad er elska, hann straffi mig, þad er mér vidsmjør á høfdi; mitt høfud skal ei undanfærast, þó hann slái aptur. En eg bid á móti hinna vondsku. 6. Nidursteypt er þeirra fyrirlidum af kletti; en þeir hafa heyrt mín ord, ad þau voru elskuleg, (1 Sam. 24, 10—16). 7. Eins og þá madur sagar og klífur (vid) á jørdunni, svoleidis er vorum beinum úttvístrad í grafarinnar gin.

8. Til þín Jehóva, minn Drottinn! mæna mín augu, á þig reidi eg mig, framsel þú ekki

mitt líf! 9. Varðveittu mig fyrir snørunni sem þeir hafa fyrir mig lagt, og frá þeirra snørum, sem aðhafast rángindi. 10. Lát þá óguðlegu falla í sitt eigið net allasaman, en mig komast hjá því!

## 142. Sálmur.

Bæn móti óvinum. (1 Sam. 24, 4).

1. Ljóð af David; bæn þá hann var í hellirnum. 2. Með hárri raust kalla eg til Drottins, með hárri raust bið eg Drottinn um náð. 3. Eg úteys mínu kveini fyrir hans augliti, mína neyð tjái eg frammi fyrir hans augsýn. 4. Þegar minn andi vanmegnast í mér, þá þekkir þú mína gøtu, á vegin sem eg á að fara um, leggja þeir fyrir mig snørur. 5. Eg lít til hægri handar og sje þar eingann sem við mig kannast; mér er allt hæli horfið, einginn géfur um mig. 6. Þá kalla eg til þín, Drottinn! eg segi: þú ert mitt hæli, mín hlutdeild á landi hinna lifandi. 7. Géf gaum að mínu kalli, því eg er mjøg aumur, frelsaðu mig frá þeim sem ofsækja mig, því þeir bera mig ofurliða. 8. Leið sál mína úr fángelsinu, að eg megi prísa þitt nafn! þeir ráðvøndu safna sér í kríngum mig, efað þú gjørir vel við mig.

## 143. Sálmur.

Sama efni.

1. Ljóð af David. Drottinn, heyr mína bæn! snú þínu eyra til minnar grátbeiðni, bænheyr mig eptir þinni trúfesti, eptir þínu réttlæti, 2. og gakk ekki í rétt við þinn þénara! því réttlátur fyrir þér er einginn lifandi (maður). 3. Því óvinurinn ofsækir mína sál, hann sundurmer mitt líf við jørðina, hann lætur mig búa í þeim dimmu bústøðum, líkt þeim dauðu í fornøld. 4. Því vanmegnast minn andi í mér, og innst í mér skélfist mitt hjarta. 5. Eg minnist hinna fyrri daganna, eg ígrunda øll þín verk, verkin þinna handa yfirvega eg. 6. Eg útbreiði mínar hendur til þín, mína sál (þyrstir) eins og þurt land eptir þér, (málhvíld. 7. Flýttu þér að bænheyra mig, Drottinn! af laungun ørmagnast minn andi; fel ei fyrir mér þitt auglit, annars verð eg líkur þeim sem farnir eru niður í grøfina. 8. Láttu mig fljótt reyna þína miskun, því eg treysti á þig, kunnan gjør mér þann veg sem eg gángi, því til þín upplypti eg minni sálu. 9. Frelsa mig, Drottinn! frá mínum óvinum; hjá þér hefi eg falið mig. 10. Kénn mér þinn vilja! því þú ert minn Guð; þinn góði andi leiði mig um greiðan veg. 11. Sakir þíns nafns, Drottinn! haltu mér við lífið, þíns réttlætis vegna, leið mína sál úr nauðum. 12. Og sakir þinnar miskunar afmá mína óvini, og eyðilegg alla þá sem þreyngja að minni sál, því eg er þinn þénari.

## 144. Sálmur.

Þakklæti og bæn.

1. Sálmur af David. Lofaður sé Drottinn, mitt bjarg! hann sem kénnir mínum høndum að stríða, mínum fíngrum að berjast, 2. hann (Guð) minn velgjørari og mitt vígi, mitt hæli og minn frelsari, minn skjøldur, á hvørn eg reiði mig, hann sem leggur þjóðirnar undir mig. 3. Drottinn! hvað er maðurinn að þú vilt við hann kannast! mannsins barn að þú géfur gaum að því! 4. Maðurinn, sem er líkur andardrætti, hans dagar sem hverfandi skuggi. 5. Drottinn! beig þinn himin og stíg niður, snertu fjøllin svo úr þeim rjúki, 6. sendu þína eldíngu og tvístra þeim, sendu þínar ørfar og skélka þá. 7. Útréttu þínar hendur frá hæðinni, frelsa þú mig og bjarga mér úr þeim miklu vøtnum, af útlendra hendi; 8. hvørra munnur talar svik, hvørra hægri hønd er prettvísinnar hægri hønd.

9. Gud! nýann saung vil eg sýngja þér, á hörpu med tíu streingjum vil eg spila fyrir þér; 10. fyrir þér, sem géfur Kóngunum sigur, sem frelsadir Davíd, þinn þénara, frá óvina sverdi. 11. Frelsa þú mig og bjarga mér undan hendi útlendra, hvørra munnur talar svik, hvørra hægri hønd er prettvísinnar hægri hønd. 12. Ad vorir synir meigi vera sem hávaxnar pløntur í æsku sinni og vorar dætur sem hornsteinar fágadir, eins og í høll.

13. Øll vor fordabúr séu full, og úr þeim (komi) hvør matvæli eptir ønnur, vorar ær, þúsund — og tíu þúsund-faldist, í voru haglendi; 14. vor nautpeníngur verdi med tíma, ekki sé brotist í hús, ekki rænt, ekkért arg verdi á vorum strætum. 15. Sæl er sú þjód, sem svo vegnar, sæl er sú þjód, hvørrar Gud Drottinn er.

## 145. Sálmur.

Lofgjörd Drottins.

1. Lofsaungur Davíds. Eg vil vegsama þig, minn Gud! þú Konúngur, og eg vil lofa þitt nafn eilíflega; 2. allan daginn vil eg vegsama þig, og prísa þitt nafn æ og æfinlega. 3. Mikill er Drottinn og mjøg loflegur, hans mikilleiki er óransakanlegur. 4. Ein kynslód mun fyrir annari hrósa þínum verkum, og menn munu kunngjøra þín stórvirki. 5. Eg vil ígrunda dýrd og ágjæti þinnar hátignar og þínar dásemdir. 6. Um mátt þinna óttalegu verka munu menn tala, og frá þínum mikilleika vil eg segja. 7. Endurminníng þinnar miklu gjædsku munu þeir útbreida, og yfir þínu réttlæti munu þeir fagna. 8. Rádugur og miskunsamur er Drottinn, þólinmódur og mjøg gjædskuríkur. 9. Drottinn er gódur vid alla, og hans miskunsemi nær til allra hans verka. 10. Drottinn! øll þín verk vegsama þig, og þínir heiløgu lofa þig; 11. frá dýrd þíns ríkis munu þeir segja og um þitt veldi tala; 12. til ad gjøra sonum mannanna kunnug þín stórvirki, og þá dýrdlegu hátign þíns ríkis. 13. Þitt ríki er eilíft ríki, og þitt veldi varir frá kyni til kyns. 14. Drottinn stidur alla sem ætla ad detta, og reisir alla þá sem eru niburbeygdir. 15. Allra augu vona á þig og þú géfur þeim þeirra fædu á sínum tíma, 16. þú upplýkur þinni hendi og mettar allt sem lifir med nád, 17. réttvís er Drottinn á øllum sínum vegum, og miskunsamur í øllum sínum verkum. 18. Drottinn er nálægur øllum þeim sem hann ákalla, øllum sem ákalla hann einlæglega. 19. Hann gjørir þad sem þeir gudhræddu girnast, þeirra kall heyrir hann og frelsar þá. 20. Drottinn vardveitir alla þá sem elska hann, en hann eydileggur alla þá ógudlegu. 21. Drottins lofgjørd skal minn munnur mæla, og allt hold skal lofa hans heilaga nafn æ og eilíflega.

## 146. Sálmur.

Lofgjörd Drottins.

1. Lofid Gud! Mín sál! lofa Drottinn! eg vil lofa Drottinn svo leingi sem eg lifi; 2. eg vil sýngja mínum Gudi sálma, svo leingi sem eg er til. 3. Reidid ydur ekki á høfdíngja, ekki á manna børn, hjá þeim er ekki hjálp. 4. Fari andinn úr þeim, verda þau aptur ad jørdu; á sama degi hverfa þeirra dramblátu rádagjørdir. 5. Sæll er sá hvørs hjálp Jakobs Gud er, hvørs von er til Drottins hans Guds, 6. sem gjørdi himininn, jørdina, hafid og allt sem í þeim er, sem heldur trygd eilíflega, 7. sem útvegar rétt þeim undirþrykkta, géfur braud þeim húngrada. Drottinn leysir þá bundnu, 8. Drottinn opnar augu hinna blindu, Drottinn uppreisir þá niburbeigdu, Drottinn elskar þá rádvøndu. 9. Drottinn verndar þá útlendu, fødurlausum og ekkjum hjálpar hann, en hann umturnar vegi hinna ógud-

legu. 10. Drottinn mun stjórna eilíflega, þinn Gud, ó Síon! frá kyni til kyns (Halelúja) lofid Drottinn!

## 147. Sálmur.

Lofgjörd, Drottins.

1. Lofid Drottinn! því þad er fagurt ad sýngja vorum Gudí (Sálma), því elskulegur og fagur er sá lofsaungur. 2. Drottinn (endur) byggir Jerúsalem, þeim tvístrudu Israels samansafnar hann. 3. Hann læknar þá, sem hafa sundurmarid hjarta og bindur um þeirra sár. 4. Hann telur stjørnurnar og nefnir þær allar med nafni. 5. Mikill og voldugur er vor Drottinn, hans skilníngur er ómælanlegur. 6. Þá hógværu upphefur hann, þá ógudlegu lægir hann allt ad jørdu. 7. Sýngid fyrir Drottni med þakklæti! spilid fyrir Drottni á hørpu. 8. Fyrir honum sem þekur himininn med skýum, sem tilbýr jørdinni regn, sem lætur gras spretta á fjøllunum. 9. Fyrir honum sem géfur fædu fénadinum, úngum hrafnanna, sem til hans kalla, 10. hann hefir ei lyst á styrkleika hestsins, ei velþóknan á fótleggjum mannsins. 11. Drottni þóknast þeir sem hann óttast, þeir sem hafa von á hans miskun. 12. Vegsama Drottinn, Jerúsalem! lofa þinn Gud, Síon! 13. því hann gjørir fasta slagbranda þinna porta, hann blessar þín børn þar fyrir innan. 14. Hann géfur þínu landi frid, med besta hveiti mettar hann þig. 15. Hann sendir sínu bodskap til jardar, med hrada fer hans ord. 16. Hann géfur snjó sem ull, útdreifir hrími sem øsku. 17. Hann sendir nidur klaka í molum, hvør stendst hans kulda? 18. Hann sendir sitt ord og brædir hann; hann lætur sinn vind blása og vatnid rennur. 19. Hann hefir kunngjørt Jakob sitt ord, Israel sína setnínga og réttindi. 20. Ekki gjørdi hann svo vid allt fólk, hans réttindi þekkja þeir ekki. (Halelúja) lofid Drottinn!

## 148. Sálmur.

Lofgjord Drottins.

1. Lofid Gud! Lofid Drottinn, á himnum lofid hann í hædinni, 2. lofid hann allir hans einglar, lofid hann allar hans hersveitir, 3. lofid hann sól og túngl, lofid hann allar þér tindrandi stjørnur, 4. lofid hann himnanna himnar! og þér vøtn sem erud yfir himninum, 5. lofi þeir Drottins nafn, því þá hann baud, voru þeir skapadir, 6. og hann hefir fest þá æ og eilíflega, hann setti þeim løg, sem þeir ei munu yfirtroda, 7. lofid Drottinn á jørdunni, þér ófreskjur og øll djúp, 8. eldur og hagl, snjór og þoka, og þér stormar sem framkvæmid hans skipanir, 9. þér fjøll og allar hædir, þér ávaxtatré og øll sedrustré, 10. þér villudýr og allur fénadur, þér ormar og fleygir fuglar, 11. þér jardarinnar Kóngar, og allar þjódir, þér furstar og allir dómarar á jørdu. 12. Sveinar og meyar allar, gamlir med úngum. 13. Þeir skulu lofa Drottins nafn, því hans nafn alleina er hátt upphafid, hans hátign er yfir jørd og himni. 14. Hann hefir géfid sínu fólki veldi, lofstýr øllum sínum heiløgu, Israels børnum, því fólki sem honum er nálægt, lofid Drottinn!

## 149. Sálmur.

Sigurvon.

1. Lofid Gud! Sýngid Drottni nýann saung, hans lof á samkomu heilagra. 2. Israel gledur sig í sínum skapara, Síons børn í sínum Kóngi. 3. Þeir skulu lofa hans nafn í dansi, med bumbum og hørpum skulu þeir fyrir honum leika. 4. Því Drottinn hefir velþóknan á sínu fólki, hann prýdir þá hógværu med frelsi (sigri). 5. Þeir heiløgu skulu gledjast vid sinn heidur, þeir skulu fagna í sinni hvílu. 6. Guds lof skal vera á þeirra túngu og tvíveggjad sverd í þeirra hendi, 7. til ad

taka hefnd af þjóðunum, og refsa lýðnum, 8. ad binda þeirra Kónga med hlekkjum og þeirra voldugu med járnvidjum, 9. ad breita vid þá eptir þeim skráfetta dómi: heidur er þetta fyrir alla hans heilögu. (Hallelúja). Lofid Drottinn.

### 150. Sálmur.

Lofsálmur.

1. Lofid Drottinn! Lofid Gud í hans helgidóm, lofid hann í hans útbreiddu styrkleika festíngu. 2. Lofid hann fyrir hans stórvirki. Lofid hann samkvæmt hans mikilleika. 3. Lofid hann med básúnu hljóm. Lofid hann med hljódfærum og hørpu. 4. Lofid hann med bumbum og dansi, lofid hann med streingjum og organi. 5. Lofid hann med hljódhvellum hornum, Cymblum, lofid hann med klíngjandi Cymblum. 6. Allt hvad ándardrátt hefir, lofid Drottinn. (Hallelúja). Lofid Drottinn.

# Salómons Ordskvidir.

## 1. Kapítuli.

Inngángur. Hrós vitskunnar. Advorun.

1. Ordskvidir Salómons, Davíds sonar
Ísraels Kongs, 2. til ad þekkja vísdóm og
mentun, til ad nema spekinnar ord, 3. til ad
læra undirvísun í umhugsunarsemi, réttvísi,
rétti og sannsýni. 4. Til ad géfa þeim einføldu
hyggindi, únglíngunum þekkíngu og framsýni.
5. (Sá vitri skal og svo hlusta til og auka
sinn lærdóm; sá framsýni skal fá heilrædi),
6. til ad skilja ordskvidu og gátur; ord hinna
vísu og þeirra óljósu tølur. 7. Otti Drott-
ins er upphaf vitskunnar, heimskíngjar forsmá
vísdóm og mentun. 8. Minn son! hlusta þú
á áminníng fødur þíns, og yfirgéf ekki bodord
þinnar módur. 9. Því føgur prýdi eru þau
á þínu høfdi og kédja á þínum hálsi. 10.
Minn son! þegar syndarar lokka þig, þá sam-
sinntu ekki. 11. Þegar þeir segja: kom þú
med oss, vér viljum setjast um líf manna, vér
viljum fara í launsátur fyrir þann saklausa án
saka, 12. vér viljum svelgja þá í oss, sem grøf-
in lifandi (menn), og þá hreinskilnu, sem þá
er nidur fara í afgrunnin; 13. allt þeirra
dýrmæta fé skulum vér finna og fylla vor hús
med herfángi; 14. þitt hlutskipti skaltu hafa
med oss, allir skulum vér einn sjód hafa!
15. Minn son! far þú ekki þann veg med þeim.
Aptra þú fæti þínum frá þeirra leid. 16.
Því fætur þeirra hlaupa til ílls, og þeir hrada
sér til ad úthella blódi. 17. Vissulega er
þad til einkis ad leggja (fugla) netid, þegar all-
ir fuglarnir horfa á. 18. En þessir umsitja
sitt eigid blód, þeir fara í launsátur fyrir sitt
eigid líf. 19. Þannig er hvørs þess háttur
sem hneigdur er til gróda, hann sviptir sína
eigin herra lífinu.

20. Spekin kallar fyrir utan, hún lætur sína
raust heyra á gøtunni. 21. Hún hrópar á
fjølmennum stødum hjá inngánginum í port
stadanna: 22. hvørsu leingi viljid þér heimsk-
íngjar elska heimskuna? þér hádfuglar hafa
lyst til ad hæda? þér einfeldníngar hata hygg-
indi? 23. Snúist til minnar umvøndunar!
sjáid! eg vil úthella yfir ydur mínum anda;
eg vil kunngjøra ydur mín ord. 24. Af því

eg hrópadi og þér drógud ydur í hlé; eg útrétti mínar hendur, og einginn gaf því gaum; 25. af því þér létud allt mitt rád fara, og vildud ekki þola mína umvøndun, 26. þá vil eg líka hlæa í ydar ólukku; eg skal gjøra mér gladt þegar þad kémur sem þér óttist. 27. Þegar þad, sem þér hrædist, kémur sem eydileggíng; og ydar ólukka kémur sem stormbilur; þegar ángist og neyd yfirfellur ydur. 28. Þá munu þeir kalla til mín, en eg skal ekki ansa; þeir munu árla leita mín, en ekki finna mig. 29. Af því þeir høtudu þekkíngu, og útvøldu ekki ótta Drottins, 30. af því þeir ekki féllust á mín ráð, og forsmádu alla mína umvøndun. 31. Því skulu þeir neyta af ávøxtum sinna vegu, og mettast af sínum eigin rádum. 32. Því fráfall hinna heimsku drepur þá, og uggleysi hinna fávísu tortínir þeim. 33. En hvør sem mér hlýdir, sá mun óhultur búa, og ekki skal hann hrædast hid illa.

## 2. Kapítuli.

Vidvørun vid vondsku, falsi, hórdómi.

1. Minn son! viljir þú mín ord medtaka og mín bodord hjá þér geyma; 2. svo ad þú látir þitt eyra géfa gaum ad vísdómi, og beigir þitt hjarta til hygginda; 3. já, efad þú kallar eptir skilníngi, og hrópar (á) vitsku; 4. efad þú leitar hennar eins og silfurs, og grenslast eptir henni sem fólgnu fé; 5. þá muntu skinja hvad Drottins ótti er, og þá skaltu finna Guds þekkíngu. 6. (Því Drottinn géfur vísdóm, frá hans munni kémur þekkíng og vit. 7. Hann geymir sína hjálp þeim hreinskilnu, hann er skjøldur þeirra sem gánga óstraffanlega. 8. Hann vardveitir réttarins stigu, og gáir ad vegum sinna heiløgu). 9. Þá muntu þekkja réttvísina og réttinn og sannsýnina, og sérhvørn gódann veg. 10. Því vísdómur skal koma í þitt hjarta, og þekkíng vera lystileg þinni sálu. 11. Hyggindin skulu vaka yfir þér og vitid vernda þig; 12. svo þú frelsast frá vegi hins vonda, frá þeim manni sem talar fals; 13. frá þeim sem yfirgéfa réttarins stig, til ad gánga á mirkursins vegi; 14. frá þeim sem hafa gledi af ad gjøra illt, sem fagna yfir sínum vondsku hrekkjum, 15. frá þeim hvørra vegir eru øfugir, sem fara krókóttar gøtur. 16. Þú frelsast frá hórkonunni, frá þeirri útlendu, hvørrar ord eru hál; 17. sem yfirgéfur unnusta sinnar æsku, og hefir gleymt sáttmála síns Guds. 18. Því hún hnígur til daudans med sínu húsi, og til helju med sínum sporum. 19. Af øllum sem inn til hennar gánga, kémur einginn aptur, og einginn þeirra kémst á lífsins stig. 20. Því skaltu gánga á vegi hinna gódu, og gá ad leid hinna rádvøndu. 21. Því þeir hreinskilnu búa í landinu og þeir rádvøndu verda eptir í því. 22. En hinum ógudlega skal útrudt verda úr landinu, og þeir svikafullu af því afmádir verda.

## 3. Kapítuli.

Gagnsemi spekinnar.

1. Son minn! gleym ekki mínum lærdómi! þitt hjarta vardveiti mín bodord. 2. Því þau munu auka þér lánglífi, lífsins ár og frid. 3. Miskun og sannsøgli yfirgéfi þig ekki, bind þessar um þinn háls, skrifa þær á spjøld þíns hjarta. 4. Svo muntu finna nád og heppni fyrir Guds og manna augum. 5. Reiddu þig uppá Drottinn af øllu hjarta, en treystu ekki þínu viti! 6. Mundu til hans á øllum þínum vegum, og hann mun láta þína leid verda beina. 7. Eigi skaltu þykjast hygginn; heldur óttastu Drottinn, og fordastu hid illa! 8. Þad skal verda a) líkama þínum heilsubót, og mergur (endurnær-

V. 8. *a.* Adrir: nafla sínum:

íng) þínum beinum. 9. Heidra Drottinn med þínum audæfum, med frumvexti alls þíns gróda. 10. Þá munu hlødur þínar verda yfirfljótanlega fullar, og vínberja løgur flóa út af þínum vínpressum.

11. Minn son! misvird þú ekki Drottins aga, og vertu ekki óþolinmódur þegar hann straffar. 12. Því hvørn sem Drottinn elskar, þann agar hann, og hefir á honum velþókknan, sem fadir á syni.

13. Sæll er sá madur sem finnur vísdóm, sá madur sem útvegar sér hyggindi, 14. því þad er betra ad fá þau enn silfur, og þau eru betri inntekt enn gull. 15. Þau eru dýrmætari enn perlur, og allir þínir dírgripir jafnast ekki vid þau. 16. Í þeirra hægri hendi er lánglífi; og í vinstri hendi audur og heidur. 17. Þeirra vegur er yndislegur vegur; og allar þeirra gøtur eru fridur. 18. Þau eru lífsins tré, fyrir þá sem ná þeim; og þeir sem halda þeim fast, skulu sælir prísast. 19. Drottinn grundvalladi jørdina med vísdómi; og reisti himininn med ráddeild. 20. Undirdjúpin eru opnud af hans kunnáttu, og døgg drýpur úr skýunum. 21. Minn son! lát ekki bodordin víkja frá þínum augum; vardveit þú vitsku og hugsunarsemi. 22. Þad skal vera líf fyrir þína sálu, og prýdi fyrir þinn háls. 23. Þá skaltu gánga óhultur á þínum vegi, og þinn fótur skal ekki reka sig á. 24. Þegar þú leggst fyrir, þá muntu ekki hræd ast, og medan þú liggur, muntu sofa vært. 25. Þú munt ekki óttast voveiflega skélfingu, ei heldur eydileggíng hinna ógudlegu, ad hún nái til þín. 26. Því Drottinn mun vera þitt athvarf, og hann mun vardveita þinn fót, ad hann ei verdi fángadur.

27. Haldtu ekki þínum gjædum, fyrir þeim sem þau tilheyra, hafi þín hønd efni á ad gjøra þad. 28. Segdu ekki vid þinn náúnga: fardu núna og kom þú aptur, á morgun mun eg géfa þér, þegar þú hefir þad til. 29. Upphugsa þú ekki íllt móti vini þínum; hann býr svo øruggur hjá þér. 30. Þrátta þú ekki vid neinn án saka, hafi hann ekkért íllt gjørt þér. 31. Øfunda ekki ofbeldismanninn, og vel þér eingann af hans vegum. 32. Því vidurstygd fyrir Drottni er sá falski, en hann er vinur þeirra rádvøndu. 33. Bølvun Drottins er yfir húsi hinna ógudlegu, en hann blessar bústad hinna réttskikkudu. 34. Vissulega gjørir hann gis ad hádgjørnum; en hógværum géfur hann nád. 35. Hinir vísu munu heidurinn erfa; en heimskíngjar skulu skømmina medtaka.

## 4. Kapítuli.

*Áminníng ad stunda vísdóm og sannsøgli.*

1. Synir! heyrid fødursins áminníngu; og géfid gaum ad, svo þér lærid framsýni. 2. Því gódan lærdóm géf eg ydur, yfirgéfid ekki mín løg. 3. Því líka var eg sonur fødur míns, elskadur sem sá einasti í augum minnar módur. 4. Hann kéndi mér og sagdi vid mig: lát þitt hjarta adhyllast mitt ord; vardveittu mín bodord, svo skaltu lifa. 5. Kaup þú vísdóm, kaup þú hyggindi; gleymdu ekki og vík þú ekki frá tali míns munns. 6. Yfirgéf þad ekki, þá mun þad vernda þig; elska þad, svo mun þad vakta þig. 7. Vísdómsins upphaf er: kaup þú vísdóm og kaup þú hyggindi fyrir allar þínar eigur. 8. Umfadma þú hann, svo mun hann upphefja þig, hann mun heidra þig, þegar þú umfadmar hann. 9. Þitt høfud mun hann fagurlega prýda, hann mun géfa þér dýrmæta kórónu. 10. Heyr, minn son! medtak þú mínar tølur, svo munu þín ár verda mørg. 11. Eg vil leida þig á vísdómsins veg, og á beina gøtu. 12. Gángir þú þar, skal þinn vegur ei verda þraungur, og þó þú hlaupir þar, skaltu ei hrasa. 13. Haldtu áminníngunni fastri;

láttu hana ekki fara; vardveittu hana! því hún er þitt líf. 14. Kom þú ekki á gøtu hinna ógudlegu og gakktu ekki á veg hinna vondu. 15. Yfirgéfdu haun, gakk þú ekki fram á honum, vík frá honum, og fardu fram hjá honum! 16. því þeir sofa ekki, nema þeir hafi gjørt íllt; og þeir hrøkkva upp af svefni, hafi þeir ekki fellt einhvørn. 17. Því þeir eta ógudlegleika braud, og drekka ofbeldis vín. 18. En gata réttlátra er sem skínandi ljós sólarinnar; þess byrta eykst allt til hádegis. 19. Vegur ógudlegra er sem myrkur, þeir vita ekki hvar þeir munu reka sig á. 20. Minn son! géf gaum ad mínum ordum, og hneig þitt eyra ad minni rædu. 21. Lát haua ekki víkja frá þínum augum; vardveit þú hana innst í þínu hjarta. 22. Því hún er þeirra líf sem hana finna, og lækníng fyrir allan þeirra líkama. 23. Framyfir allt sem vaktad er, þá vardveittu þitt hjarta, því þar eru lífsins upptøk. 24. Snú þú frá þér munnsins vanart, og lát varanna óhæfu vera lángt frá þér! 25. Augu þín líti beint áfram, og þín augnalok horfi rétt fram undan þér. 26. Gjør þú gøtu þinna fóta jafna, og allur þinn gángur sé beinn! 27. Sveigdu hvørki til hægri né vinstri handar; snú fæti þínum frá enu illa.

## 5. Kapítuli.

Vidvorun vid hórdómi.

1. Minn son! géf þú gaum ad mínum vísdómi; hneig þín eyru til minna hygginda, 2. svo ad þú gétir vardveitt hugsunarsemi, og þínar varir geimi þekkíngu.

3. Því ad sønnu drýpur hunáng af vørum annarlegrar konu, og hálli enn vidsmjør er hennar barki; 4. en hennar útgánga er beiskari enn malurt, beitt eins og tvíeggjad sverd. 5. Hennar fætur gánga niduravid til daudans, hennar spor stefna til helju. 6. Ad hún gángi ei lífsins gøtu, reikar hún til og frá; hún veit ei hvørt. 7. Svo heyrid mig nú, mín børn! og víkid ekki frá tali míns munns! 8. Lát þinn veg vera lángt frá henni, og þú skalt ekki koma nálægt hennar húsdyrum, 9. ad þú géfir ekki annarlegum þinn blóma, og þeirri grimmu þín ár, 10. ad þeir útlendu mettist ekki af þínum eigum, og þitt erfidi lendi í annarlegu húsi. 11. Ad þú ekki ad lyktum andvarpir, þegar þitt hold og þinn líkami hverfur þér, 12. og segir: hvarfyrir hatadi eg aga, og því forsmádi mitt hjarta advørun? 13. eg hlýddi ei raust minna kénnenda, beigdi ei mitt eyra til þeirra sem uppfræddu mig, 14. lá vid sjálft ad eg hefdi ratad í skømm midt á mannfundi og í søfnudinum. 15. Drekk þú vatn úr þinni eigin lind, og fljótandi vøkva midt úr þínum brunni. 16. Þínir lækir renni útá gøtuna, og vatnslyndir á strætinu; 17. láttu þá tilheyra þér einum og ekki þeim framandi med þér. 18. Þín uppspretta sé blessud, og gled þig vid unnustu þíns úngdóms. 19. Hún sé þér sem kjær hind, og yndislegt rádýr. Láttu hennar elskusemi ætíd hressa þig, og hennar ást sífeldt gjøra þig ølvadann!

20. Minn son! hvarfyrir viltu binda þig vid framandi (konu) og umfadma brjóst þeirrar útlendu? 21. Því fyrir augum Drottins eru hvørs manns vegir opnir, og hann mælir hvørs eins spor. 22. Misgjørdir hins ógudlega munu fánga hann; og hann mun bundinn verda med reipum sínna synda. 23. Hann mun deya, af því hann vildi ekki láta sér segjast, og hann kollvarpast í sinni fásinnu.

## 6. Kapítuli.

Vidvorun, ad gánga í borgun, vid leti, falsi og fleirum glæpum.

1. Minn son! hafir þú geingid í borgun fyrir þinn náúnga, hafir þú géfid hønd fyrir

framandi mann, 2. sértu bundinn af ordi þíns munns, fángadur af tali þíns munns: 3. svo gjør þetta, minn son! og losa þig, því þú ert kominn á vald þíns náúnga; farðu! rífdu þig lausann, og legdu ad þínum náúnga! 4. leifdu þínum augum eingan svefn, né þínum augnalokum blund! 5. losadu þig eins og rádýr úr veidimannsins hendi, og sem fugl úr fuglafángarans hendi! 6. Þú letíngi! farðu til maursins, og sjádu hans háttu, og verd hygginn. 7. Þó hann hafi eingann høfdíngja, yfirboda eda herra, 8. útvegar hann sér samt forda á sumrum, safnar sér atvinnu á haustin. 9. Þú letíngi! ætlar þú leingi ad liggja? nær ætlar þú ad vakna? 10. Þú segir: „eg verd enn ní ad sofa dálítid, blunda lítid, liggja svolítid med samanløgdum høndum". 11. En þá skal líka fátæktin koma yfir þig sem ræníngi, skorturinn yfir þig sem hermadur.

12. Oræstis madur er sá falski, sem geingur eptir vanart síns munns; 13. hann deplar med augunum, gefur merki med sínum fótum og bendir med sínum fíngri. 14. Ofugstreymi er í hans hjarta; hann upphugsar íllt á hvørri stundu; hann kémur á stad þrætum. 15. Því skal hans ólukka snøgglega koma; á augnabliki skal hann sundurmolast, og eingin lækníng fást.

16. Þessa sex hluti hatar Drottinn; þessir sjø eru honum andstygd: 17. drambsøm augu, lýgin túnga, hendur sem úthella saklausu blódi, 18. hjarta sem smídar íllar rádagjørdir, fætur sem med hrada hlaupa til ens ílla, 19. falsvitni sem talar lýgi, og sá sem kémur deilu á stad medal brædra.

20. Vardveit, minn son! bodord fødur þíns, og vík þú ekki frá tilsøgn módur þinnar. 21. Bind þú þau á þitt hjarta, heingdu þau um þinn háls. 22. Þegar þú geingur skulu þau leida þig; þegar þú leggur þig, skulu þau vakta þig, og þegar þú vaknar skulu þau tala vid þig. 23. Því bodordid er skridljós og tilsøgnin ljós, og uppfrædíngarinnar umvøndun er lífsins vegur, 24. svo þú verdir vardveittur frá vondri konu, frá þeirri hálu túngu hinnar útlendu; 25. haf þú ei lyst til hennar fríðleika í þínu hjarta, og láttu hana ekki fánga þig med sínum augum. 26. Því fyrir skjækunnar sakir, neydist madur til ad snýkja sér braudbita, og annars manns kona, sækist eptir því díra lífi. 27. Gétur nokkur látid svo eld í sinn barm, ad hans klædi ekki brenni? 28. Ætla nokkur géti svo geingid á glódum, ad hann brenni sig ekki á fótunum? 29. Svo fer og þeim sem hefir møk vid konu náúnga síns, einginn sá verdur óstraffadur sem hana snertir. 30. Menn vægja ekki þjófnum, þá hann stelur til ad metta sína sálu, af því hann er húngradur. 31. Verdi hann tekinn, betalar hann sjøfaldt, og missir allt góts síns húss. 32. Sá sem drýgir hór med konu, er frá vitinu, gjøri sá þad sem vill tortína sínni sálu. 33. Høgg og smán mun hann finna, og hans skømm verdur ekki afmád! 34. Því vandlæti upptendrar manninn, hann hlífir ekki á hefndarinnar degi. 35. Hann þiggur einga forlíkun, og verdur ei fridstilltur þótt þú hrúgir ad honum gáfum.

## 7. Kapítuli.

Vidvorun til únglínga móti lauslæti.

1. Son minn! vardveit mín ord, og geim þú hjá þér mín bod. 2. Vardveittu mín bodord ad þú lifir, og mína tilsøgn, sem þinn augastein. 3. Bind þú þau á þína fíngur, skrifa þú þau á tøblu þíns hjarta. 4. Segdu vid spekina: þú ert mín systir, og kalla þú framsýnina þína frændkonu, 5. svo ad hún vardveiti

þig frá annarlegri konu, frá þeirri útlendu, sem er svo sléttorð.

6. Eg leit út af mínum glugga, gégnum grindverkið; 7. eg leit til þeirra heimsku; eg varð var við úngann mann meðal sonanna, sem var frá vitinu; 8. hann gékk um strætið að horninu á hennar húsi og ætlaði að gánga fram hjá því, 9. í rökkrinu um kvöldið, um miðnættisleiti, í dimmu. 10. Og sjá þú, að kona nokkur mætti honum, búin sem skjæka og undirförul í sínu hjarta. 11. Hún ólmaðist og réði sér ekki; hennar fætur toldu ekki í hennar húsi, 12. stundum er hún á strætum, stundum á torgum, og umsitur á hvörju (strætis) horni. 13. Hún náði í hann og kysti hann, og ósvífin (í bragði) mælti hún við hann: 14. eg var skuldug um þakkarfórn; í dag hefi eg goldið mitt heit; 15. því fór eg út að hitta þig, og eg leitaði þíns andlitis og eg hefi fundið þig. 16. Með ábreiðum hefi eg prýdt mína sæng, með mislitum tjöldum úr egyptsku líni. 17. Eg hefi stráð yfir mitt rúm myrru, aloe og kanel. 18. Kom þú! við skulum af ástum drukkin verða allt til morguns, við skulum gleðjast af miklum blíðlátum, 19. því maðurinn minn er ekki heima, hann er farinn í lángferð. 20. Hann tók með sér peninga pýngjuna; á túnglkomu hátíðinni mun hann í fyrsta lagi heim koma. 21. Með fortölum sínum beigði hún hann, og lokkaði hann með sínum smjaðrandi vörum. 22. Hann skundaði eptir henni, einsog nautið kémur til slátrunar bekksins, og (einsog hlekkir koma til hegníngar níðíngnum). 23. Þángað til pílan fer í gégnum hans lifur, einsog fugl hraðar sér í snöruna, og veit ei að það kostar hans líf.

24. Svo heyrið mig nú, mín börn! og takið eptir orðum míns munns. 25. Lát þitt hjarta ei teigjast á hennar veg, gakk þú ekki á hennar götum. 26. Því marga hefir hún sært og fellt, og margir eru þeir sem hún hefir drepið. 27. Vegur til helju er hennar hús, þar er leiðin niður til dauðans herbergja.

V. 22. Aðrir: eins og hjörturinn stökkur í netið.

## 8. Kapítuli.

Hrós spekinnar.

1. Kallar spekin ekki? lætur ei vitskan sína raust heyra? 2. Hún stendur á tindum þeirra háu fjalla, hjá vegunum, við húsin, og á krossgötum. 3. Hún kallar hátt við portin, við inngánginn til staðarins, hvar menn gánga inn um dyrnar: 4. Við yður tala eg, þér menn! og mín raust hljómar til mannanna barna. 5. Þér heimskíngjar! lærið hygginði, þér fávísir! lærið framsýni. 6. Hlustið á, því skiljanlega hluti vil eg tala, og eg opna mínar varir til að tala einlægni. 7. Því sannleika mælir minn munnur, og ógudlegleiki er viðbjóður mínum vörum. 8. Hispurslaus eru öll orð míns munns; í þeim er ekkért aflagað eða rángsnúið. 9. Það eru öll skiljanleg þeim hyggna, og ljós fyrir þá sem komnir eru til þekkíngar. 10. Meðtakið minn lærdóm, og ekki silfur, og metið fróðleik meir enn (einvala) besta gull, 11. því vitskan er betri enn perlur og allir dýrgripir jafnast ei við hana.

12. Eg vitska, bý hjá hyggninni, og hugsunarsama þekkíngu finn eg. 13. Otti Drottins er að hata illt, dramblæti, metnað og vonda vegi, og þann munn, sem talar rángsnúna hluti hata eg. 14. Hjá mér er ráðdeild og staðfesta, eg er vit og hyggni, og hefi styrkleika. 15. Kongarnir eiga mér að þakka að þeir ríkja, furstarnir, að þeir niðurskipa réttinum, 16. stjórnendur að þeir drottna og höfðíngjarnir, og allir dómarar á jörðunni. 17. Eg elska þá sem mig elska, og þeir finna mig sem leita. 18. Auður og heiður er hjá mér, álitleg velmegan og rausn. 19. Minn ávöxtur er betri enn gull,

enn hid skírasta gull, og mín inntekt betri enn útvalid silfur. 20. Eg geing á réttlætisins vegi, midt á réttarins gøtu, 21. til ad útvega þeim velmegan sem elska mig, og fylla þeirra fordabúr.

22. Drottinn tilreiddi mig sem byrjun sinna vega, ádurenn hann byrjadi sitt verk. 23. Frá eilífd er eg smurd (sem drottníng), frá byrjun, fyrri enn jørdin var til. 24. Eg em fædd, þá undirdjúpin voru enn ekki, þá lindirnar, þúngadar af vatni, voru ekki til. 25. Ádurenn fjøllin voru nidurlátin, ádurenn hædirnar urdu til, er eg fædd. 26. Gud hafdi enn þá ekki skapad landid eda eydimerkurnar, eda høfud jardar duptsins (manninn). 27. Þegar hann tilbjó himininn, var eg hjá honum, þegar hann sirkladi hríng hafsins. 28. Þegar hann festi skýin uppi, þá hann gaf uppsprettum afgrunnsins, sinn vissa stad. 29. Þegar hann setti hafinu sín føstu takmørk, ad vatnid ei fari yfir þess brún; þegar hann festi jardarinnar grundvøll. 30. Þá var eg hjá honum sem hans fósturbarn, og eg var hans yndi dag hvørn, og lék mér ætíd fyrir hans augliti, 31. og nú leik eg á hans jardarhríng, og hefi minn føgnud af mannanna børnum.

32. Og nú børn, hlýdid mér! því sælir eru þeir sem gá ad mínum vegum, 33. hlýdid á adfindni og verdid hyggin, og sleppid henni ekki. 34. Sæll er sá madur sem heyrir mig, svo ad hann daglega vakir vid mínar dyr, og géfur gaum ad mínum dyrastøfum. 35. Því hvør sem mig finnur sá finnur lífid, og fær Drottins velþókknan. 36. En hvør sem missir mín, sá meidir sína sál, allir sem mig hata, elska daudann.

## 9. Kapítuli.

Upphvatníng til vitsku. Vidvørun vid heimsku.

1. Vitskan bygdi sér hús, og hjó þess sjø stólpa. 2. Hún slátradi sínu sláturs fé, blandadi vín sitt og bjó sitt bord; 3. hún sendi út sínar þernur, hún hrópadi á háum stødum borgarinnar. 4. Hvør er bernskur? komi sá híngad! vid þann fávísa mælti hún: 5. kom híngad! etid af mínu braudi, og drekkid af víninu sem eg hefi blandad, 6. segid skilid vid bernskuna, svo munud þér lifa, og gángid fram á hyggindanna veg. 7. Hvør sem umvandar vid spjelinn mann, má láta sér lynda hædni, og hvør sem ávítar ógudlegann, hádúng. 8. Umvanda þú ekki vid spjelinn mann, svo hann hati þig ekki! umvanda vid hyggin mann, og hann mun elska þig. 9. Géf þú vitrum manni (áminníng) og hann mun verda enn vitrari, uppfræddu þann rádvanda, og honum mun í þekkíngu framfara. 10. Otti Drottins er upphaf vitskunnar, og þekkíng hins heilaga sønn hyggindi, 11. fyrir mitt fulltíngi skulu þínir dagar margir verda, og þín æfi ár aukast. 12. Sértu hygginn, þá ertu hygginn fyrir sjálfann þig, og sértu hádgjarn, þá muntu þad einsamall bera.

13. Heimsk kona er óhemja, hugsunarlaus og veit ekkért. 14. Hún situr vid sínar húsdyr á stól, á þeim háu stødum í borginni, 15. og kallar til þeirra sem framhjá gánga um veginn, og fara beint áfram sína leid 16. Hvør er bernskur? komi sá híngad; og vid þann heimska segir hún: 17. stolid vatn er sætt og falid braud smakkar vel. 18. En hann veit ekki, ad daudibli eru þar, og þeir sem hún ladar til sín, eru í helvítis hyl.

# Salómons Ordskvidir.

## 10. Kapítuli.

Ymisleg sannmæli.

1. Vitur sonur gledur sinn fødur, en fávís sonur er raun módur sinnar, 2. rángfengid fé stodar ekki, en réttlæti frelsar frá daudanum.

3. Drottinn lætur ei sálu hins réttláta húngra, en hann sedur ekki grædgi hinna ógudlegu. 4. Snaudur verdur sá sem erfidar med slakri hønd; en hønd hins ydjusama gjørir hann ríkann. 5. Sá sem safnar á sumrinu er framsýnn sonur; en sá sem sefur fast á uppskérutímanum er slæmur sonur, 6. blessan er yfir høfdi hins réttláta, en ofbeldi apturbyrgir munn hinna ógudlegu. 7. Minníng réttlátra er í blessan, en nafn ógudrækinna fúnar. 8. Sá sem er hygginn af hjarta, medtekur bodordin; en varanna heimska steypir í gløtun. 9. Sá sem rádvandlega geingur, hann geingur óhult, en sá ed rángsnýr sínum vegum, mun uppvís verda, 10. hvør sem deplar med augunum, sá ollir mædu, og varanna heimska steypir í ólukku. 11. Munnur hins réttláta er lífsins uppspretta, en ofbeldi apturbyrgir munn hinna ógudlegu, 12. hatur vekur deilur, en kjærleikurinn dregur fjødur yfir allar yfirtrodslur. 13. Á vørum hins hyggna finnst vísdómur; en baki hins fávísa hæfir vøndurinn. 14. Þeir vísu fara spart med sína þekkíngu, en heimskíngjans munnur gétur ei þagad. 15. Audur hins ríka er honum vígi, en fátækt hinna snaudu er þeirra hrun, 16. erfidi réttlátra er til lífsins; inntekt ógudlegra er til falls. 17. Ad muna til uppfrædíngarinnar er vegurinn til lífsins, en sá villist sem yfirgéfur umvøndunina. 18. Sá sem dylur hatur, hefir lyga varir, og sá sem útbreidir vondt rikti, hann er dári. 19. Hvar mørg ord eru tølud, vantar ekki yfirtrodslur, en sá er hygginn sem fer spart med sinn munn. 20. Túnga hins réttláta er útvalid silfur, en hjarta hins ógudlega er einkisverdt. 21. Varir réttlátra eru margra atvinna, en dárarnir deya af heimsku. 22. Drottins blessan hún audgar, bætir ei mædu þar vid. 23. Dáranum er þad gaman, ad hann gjørir skammarlegt verk, en vísdómur, þeim framsýna manni. 24. Þad sem sá ógudlegi hrædist, mun yfir hann koma, Gud mun géfa þeim réttlátu þad sem þeir girnast. 25. Eins og hvirfilvindur, svo er sá ógudlegi ekki framar, en hinn réttláti hefir eilífan grundvøll. 26. Þad sem edik er fyrir tønnurnar, og reykur fyrir augun, þad er hinn lati fyrir þá sem hann senda. 27. Otti Drottins leingir lífdagana, en ár ógudlegra styttast. 28. Eptirbid réttlátra er føgnudur, en von ógudlegra fyrirferst. 29. Drottins vegur, (trúin) er vígi hins réttsinnada, en skélfíng fyrir þá sem órétt adhafast. 30. Sá réttláti bifast ekki ad eilífu, en þeir ógudlegu skulu ekki búa í landinu. 31. Munnur hins réttláta framber vísdóm, en falskar túngur skulu upprættar verda. 32. Varir hins réttláta þekkja ad eins þad þægilega; en munnur hinna ógudlegu þad fráleita.

## 11. Kapítuli.

*Réttsýni vid náúngann.*

1. Raung vog er Drottni andstygd, en gild reidsla er hans velþókknan. 2. Komi drambsemi, kémur forsmán, en hjá þeim audmjúku er vísdómur. 3. Sakleysi hinna hreinskilnu leidir þá; en kjænska hinna svikulu flækir þá. 4. Audæfi stoda ekki á degi reidinnar; en réttlæti frelsar frá daudanum. 5. Réttlæti góds manns gjørir hans veg greidann (sléttann); en sá ógudlegi dettur um sinn ógudlegleika. 6. Réttlæti hinna hreinskilnu frelsar þá, en þeir svikssømu fángast í sinni vondsku. 7. Þegar sá ógudlegi deyr, er hans von farin; og rángslátra eptirvæntíng hverfur. 8. Sá réttláti frelsast úr naudunum, og sá ógudlegi kémur í hans stad, nl. í naudir. 9. Med munninum leitast hræsnarinn vid ad steypa sínum náúnga, en náúnganum verdur bjargad af þekkíngu hinna réttlátu. 10. Borgin gledst af lukku hinna réttlátu, og þegar ógudlegir fyrirfarast, þá heyrist fagnadar saungur. 11. Borgin upp=

hefst af blessun hinna hreinskilnu, en af munni ógudlegra verdur hún nidurbrotin. 12. Sá sem hædir sinn náúnga er fávís; hygginn madur þegir. 13. Sá sem fer um kríng sem uppljóstari, opinberar leyndarmál; en sá sem er trúr í sínu hjarta, hann leynir søkinni. 14. Þar sem eingin stjórn er, þar hlýtur fólkid ad falla; hvar margir rádgjafar eru, þar er frelsi. 15. Þegar einhvør geingur í borgun fyrir framandi mann, mun þad vissulega ei fara vel; en þeim sem hatar handsøl, er óhætt. 16. Yndisleg kona geimir sína sæmd; eins og tírannar geima vandlega sín audæfi. 17. Miskunsamur madur gjørir gott sinni sálu, en sá grimmi plágar sitt egid hold. 18. Sá ógudlegi vinnur ávaxtarlaust verk, en sá sem sáir réttlætinu, hann fær viss laun. 19. Þannig leidir réttlætid til lífsins, eins og ad sá, sem eltir hid ílla, hradar sér til síns dauda. 20. Vidurstygd fyrir Drottni eru þau vanartugu hjørtu; en hans velþókknan eru þeir sem gánga óstraffanlega. 21. Frá kyni til kyns verdur sá vondi ekki óstraffadur, en nidjar réttlátra frelsast; 22. eins og gullhríngur í svínstrýni, svo er frídleiki þeirri konu, sem víkur frá sidsemi. 23. Þeirra réttlátu eptirlaungun er eintóm gjædska, en von ógudlegra er hegníng. 24. Sá er til, sem útbýtir ríkuglega, og fær æ meir og meir; og sá er til, sem heldur inni meiru enn rétt er, og hefir þó ad eins skort. 25. Sú sál, sem adra blessar, mun sjálf fitna; og sá sem ødrum vatnar, honum skal vatnad verda. 26. Hvørjum sem korni inniheldur, þeim bølvar fólkid; en blessun kémur yfir þess høfud sem selur þad. 27. Hvør sem alúdlega leitar góds, sá leitar eptir velþókknan; en hvør sem leitar ílls, hann skal fyrir því verda. 28. Hvør sem treystir sínum aud, sá fellur; en þeir réttlátu grænka eins og laufblad. 29. Hvør sem raskar sínu egin húsi, mun erfa vind, og dárinn skal vera þénari hins hyggna. 30. Ávøxtur hins réttláta er (ávøxtur af) lífsins tré, og sá vísi dregur sálir ad sér. 31. Sjá! hinn réttláti fær umbun hér á jørdunni, hvørsu miklu framar sá ógudlegi og syndarinn?

## 12. Kapítuli.

Einstøk sannmæli.

1. Hvør sem elskar aga, sá elskar þekkíngu; en hvør sem hatar umvøndun, verdur heimskur. 2. Sá gódi fær velþókknan af Drottni; en Drottinn straffar þann mann, sem brúkar hrekki. 3. Madurinn stendur ei fastur fyrir ógudlegleikann; en réttlátra rót bifast ekki. 4. Væn kona er síns manns kóróna, en slæm kona er rotnan í hans beinum. 5. Hugsanir réttlátra eru rétturinn, en ógudlegra rád eru svik. 6. Tal hinna ógudlegu er ad umsitja blód, en munnur hreinskilinna bjargar. 7. Þeir ógudlegu kollkastast, svo þeir eru ei framar til, en hús hinna réttlátu stendur stødugt. 8. Manninum verdur hrósad eptir hans hyggilega tali; en sá sem er í hjarta sínu rángsnúinn, verdur fyrirlitinn. 9. Lítilmótlegur madur, sem er sinn eiginn þénari, hann er betri enn sá, sem lætur mikid yfir sér, og vantar braud. 10. Sá réttláti þekkir sinni sinnar sképnu, en miskunsemi hinna ógudlegu er grimm. 11. Sá sem yrkir sitt land, mettast af braudi, en sá sem fer í flokk med ydjuleysíngum, er óframsýnn. 12. Laungun hinna ógudlegu sækist eptir því ílla; en rót hinna réttlátu gefur (ávøxt). 13. Varanna vondska er slæm snara, en sá réttláti sleppur úr neydinni. 14. Af ávexti síns munns mettast madurinn med gjædum, og hans handaverk hverfa til hans aptur. 15. Dáranum þikir sinn vegur beinn, en sá er vitur sem hlýdir á góð rád. 16. Sá heimski kunngjørir sína brædi samdægurs; en sá er framsýnn, sem dylur vanvyrduna. 17.

Sá sem kunngjörir sannleika, kunngjörir það sem er rétt, en falsvitnið kunngjörir svik. 18. Sá sem talar hugsunarlaust, hann er eins og beitt sverð; en túnga hinna vísu er lækníng. 19. Sannsøgull munnur verður ætíð fastur, en følsk túnga ekki nema eitt augnablik. 20. Svik eru í þeirra hjarta sem uppspenna tvídrægni; en hjá þeim sem ráða til friðar, er gleði. 21. Sa réttláti skal einga ólukku reyna; en þeir ógudlegu hlaðast ólukku. 22. Lyga varir eru Drottni andstygð; en þeir sem sannleik ydka, eru honum velþókknan. 23. Hygginn maður dylur sína þekkíngu; en dáranna hjarta úthrópar sína heimsku. 24. Yðjusøm hønd mun drottna; en sú lingerða verður skattskyld.

25. Hjartasorg mannsins niðurbeigir hann, en vingjarnlegt orð gleður hann. 26. Réttvís maður vísar veg sínum naúnga, en vegur ógudlegra leiðir þá sjálfa í villu. 27. Sú lina hønd steikir ekki sína villibráð; mannsins dírasti auður er yðni. 28. A réttlætisins gøtu er lifið, og á løgðum vegi er einginn dauði.

## 13. Kapítuli.

### Sundurlausar lífsreglur.

1. Hygginn sonur hlýðir á umvøndun føður síns, en sá hæðni gégnir eingri aðfinníngu. 2. Maðurinn hefir gott af áverti síns munns; en eptirlaungun svikarans er ofbeldi. 3. Hvør sem gáir að sínum munni, varðveitir sitt líf; en þeim sem líkur upp sínum vørum, er búið tjón. 4. Sá lati girnist og fær ekki, en sál hins yðna mettast ríkuglega. 5. Sá réttláti hatar lýginnar orð, en sá ógudlegi yðkar skimp og skop. 6. Réttlætið varðveitir þá sem eru á þeim rétta vegi; en lýgin steypir syndurum. 7. Einn þikist ríkur og hefir þó ekkért; annar lætst vera fátækur og hefir mikinn auð. 8. Auður er mørgum lausnargjald lífsins, en sá fátæki heyrir einga hótan. 9. Ljós hinna réttlátu logar glaðt; en skriðljós ógudlegra slokknar. 10. Með drambsemi kémur maður á stað deilum; en hjá þeim, sem láta sér ráðleggja, er vísdómur. 11. Auður, feinginn með prettum, skal minka; en hvør sem safnar með hendinni, sá mun auka hann. 12. Sú von, sem leingi dregst, særir hjartað, en uppfyllt eptirlaungun er lífsins tré. 13. Hvør sem forsmáir heilræði, ollir sér sjálfum fordjørfunar; en hvør sem óttast boðorðið, fær laun þar fyrir. 14. Lærdómur hins vísa er lífsins uppspretta til að forðast dauðans snørur. 15. Vit og gjæska veitir hylli, en vegur hinna svikulu er (hrjóstrugur). 16. Sá hyggni gjørir allt með viti, en heimskínginn útbreiðir heimskuna. 17. Ogudlegur sendiboði ratar í ólukku; en trúr sendimaður er lækníng. 18. Fátækt og skømm hittir þann sem lætur umvøndun fara; en sá sem varðveitir viðvørunína, kémur til heiðurs. 19. Mettuð laungun er sæt fyrir sálina, en að forðast íllt, er heimskíngjanum andstygð. 20. Sá sem umgeingst hyggna, verður hygginn; en dáranna stallbróðir, verður dári. 21. Olukka eltir syndarana, en þeim réttlátu umbunar hann (Guð) með góðu. 22. Sá góði útvegar sínum barna børnum arf; en syndarans góts geimist þeim réttláta. 23. Ný-ræktað land hins fátæka, géfur mikla fæðu; en ríkdómur hverfur hvar ránglæti er. 24 Hvør sem sparar vøndinn, hatar sinn son, en hvøred elskar hann, sá agar í tíma. 25. Sá réttláti etur þángað til hans sál verður mett, en magi hins ógudlega verður æ tómur.

## 14. Kapítuli.

### Ymisleg sannmæli.

1. Kvennanna vísdómur reisir húsið, en heimskan niðurbrítur það með sínum eigin hønd-

um. 2. Hvør sem framgeingur með hreinskilni, sá óttast Drottinn; en sá sem geingur króka veg, foraktar hann. 3. Í dárans munni er hans hofmóðs vøndur, en varir þeirra vísu vernda þá. 4. Hvar eingin naut eru, þar er jatan tóm, en fyrir uxanna krapt fæst mikil inntekt. 5. Hreinskilið vitni lýgur ekki, en falsvitni framber lýgi. 6. Háðgjarn maður leitar vitsku, en finnur ekki; en hyggnum manni er vitskan auðfundin. 7. Gakk þú fram hjá þeim heimska manni, og þeim sem þú veitst að ei hafa varir þekkíngarinnar. 8. Það er vísdómur hins hyggna, að hann gáir að sínum vegi; en dáranna heimska er tál. 9. Heimskíngjar hlæa að sínum syndum, en meðal þeirra hreinskilnu býr velþóknan (Guðs). 10. Hjartað þekkir eigin beiskju, og í þess føgnuð gétur einginn óviðkomandi blandað sér. 11. Óguðlegra hús mun eyðileggjast, en tjaldbúð hreinskilinna mun blómgast. 12. Vegir eru til sem manni sýnast réttir, en útgángurinn er vegur til dauðans. 13. Þó að hjartað hlæi, kénnir það (opt) til, og gleðin endar með sorg. 14. Rángsnúið hjarta mettast af sínum vegum, en góður maður af því, sem hans er. 15. Sá einfaldi trúir øllu, en hygginn maður athugar sinn gáng. 16. Sá vitri er hræddur og forðast hið illa, en dárinn er djarfur og ugglaus. 17. Sá sem er fljótur til reiði, aðhefst heimskupør, og sá undirføruli maður bakar sér hatur. 18. Þeir fávísu eiga heimskuna, en þeir hyggnu krýnast með þekkíngu. 19. Þeir vondu skulu lúta þeim góðu, og þeir óguðlegu í portum hinna réttlátu. 20. Einnig af vinum sínum verður sá fátæki fyrirlitinn, en margir elska þann ríka. 21. Hvør sem fyrirlítur sinn vin, sá syndgar; en sá er sæll sem aumkast yfir þann snauða. 22. Fara þeir ekki villir vega sem ástunda illt? og finna þeir ekki hylli og tiltrú sem ástunda gott? 23. Allt erfiði gefur nægtir, en orðin tóm leiða með sér skort. 24. Vísum manni eru hans auðæfi kóróna; en fávísra heimska (nl: fávísra álit) er heimska, 25. sannorðt vitni bjargar sálum, en falsvitni útblæs lygum. 26. Í ótta Drottins er øruggt vígi, og (sínum) børnum mun hann vera hæli. 27. Ótti Drottins er brunnur lífsins, til að forðast snørur dauðans. 28. Það er Kónganna heiður að hafa margt fólk; en fólks ekla er furstanna tjón. 29. Lánglundargéð er mikil vitska, en sá bráðlyndi lætur í ljósi dáraskap. 30. Líkamans líf er rólegt hjarta, en øfund er sem rotnun í beinunum. 31. Sá sem leggst á lítilmagnann, sá óvirðir hans skapara, en hvør sem miskunar fátækum, sá heiðrar hann. 32. Sá óguðlegi dettur um sína vondsku, en sá réttvísi maður hefir jafnvel í sínum dauða athvarf. 33. Í hyggins manns hjarta hvílir vitskan, en það sem er í dáranna hjarta, lætur hátt til sín heyra. 34. Réttlætið upphefur fólkið, en syndin er þjóðanna skømm. 35. Kónginum líkar vel framsýnn þénari, en hans reiði er yfir þeim sem vanvirðir sig.

## 15. Kapítuli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Mildt svar heptir reiði, en mæðulegt orð uppvekur þykkju. 2. Túnga hinna vísu gjørir þekkínguna sæta; en munnur hinna fávísu spýr heimsku. 3. Drottins augu eru allstaðar, þau sjá illa og góða. 4. Holl túnga er lífsins tré, en hennar misbrúkun er eyðileggjandi stormur. 5. Dárinn forsmáir umvøndun síns føðurs, en sá sem man til refsíngarinnar verður hygginn. 6. Í húsi hins réttláta er gnægð auðæfa; en í inntekt hins óguðlega er óregla. 7. Varir hinna vísu útstrá þekkíngu; en dáranna hjørtu (gjøra) ei svo. 8. Óguðlegra fórn er Drottni andstygð; en bæn hinna hreinskilnu er hans velþóknan. 9. Viðurstygð fyrir Drottni er vegur hins óguðlega; en hann elskar þann, sem

stundar réttvísi. 10. Á straungum aga á sá von, sem gøtuna yfirgéfur; sá sem hatar refsínguna hlýtur ad deya. 11. Undirheimar og afgrunnid er opid fyrir Drottni; miklu framar hjørtu mannanna barna. 12. Spottarinn elskar ei ávítun, til þeirra hyggnu geingur hann ekki. 13. Gladt hjarta gjørir andlitid hýrlegt, en af hjartans hrygd verdur andardrátturinn erfidur. 14. Hyggid hjarta leitar ad þekkíngu, en munnur fávísra nærist á heimsku. 15. Allir dagar hins vesæla eru sorglegir, en gladt sinni er yduglegt géstabod, 16. betra er lítid med Guds ótta, enn mikill féssjódur og armæda med, 17. betri er einn réttur af kálmeti med kjærleika, heldurenn alinn uxi med hatri, 18. brádlyndur madur vekur þrætur, en sá sem hefir lánglundargéd stillir kíf. 19. Vegur hins lata er sem þyrnigérdi, en gata hins hreinskilna er rudd. 20. Hygginn sonur gledur fødurinn, en fávís madur fyrirlítur sína módur, 21. heimskum manni er heimskan føgnudur; en sá skinsami madur geingur beint áfram. 22. Rádagjørdir verda til einkis, þá ekki er leitad ráda, en stadfestast þar sem margir eru rádgjafarnir. 23. Vænt þykir mønnum um þann sem svarar rétt, ord í tíma talad, hvørsu ágjætt er þad! 24. Lífsins vegur er uppámóti þeim hyggna, svo hann sneidi hjá helvíti fyrir nedan. 25. Drottinn nidurbrýtur hús þeirra dramblátu; en setur føst landamerki ekkjunnar. 26. Rádagjørdir vondra eru Drottins andstygd; en hreint fyrir honum er ástúdlegt tal. 27. Sá ágjarni kémur á stad óordu í sínu húsi; en sá sem hatar mútur mun lifa. 28. Hjarta hins réttláta hugsar sig um svar; en munnur ógudlegra spýr vondsku. 29. Drottinn er fjærlægur þeim ógudlegu; en hann heyrir bæn þeirra réttlátu. 30. Hýrlegt auga gledur hjartad; gódur bodskapur feitir beinin. 31. Pad eyra sem lífsins umvøndun heyrir, mun umgángast þá vísu. 32. Sá sem sleppir umvøndun, foraktar sig sjálfann; en sá sem heyrir advørun, útvegar sér hyggindi. 33. Ótti Drottins er umvøndun til vitsku, og á undan heidri geingur audmýktin.

## 16. Kapítuli.

*Enn nú sundurlausar greinir.*

1. Í mannsins valdi eru áform hans hjarta, en frá Drottni kémur bænheyrsla túngunnar. 2. Hvørjum manni þikja sínir vegir hreinir, en Drottinn vegur andana, (prófar hjørtun). 3. Fel þú Drottni þín verk, þá munu þínar ætlanir framgáng fá. 4. Drottinn hefir allt gjørt eptir sínum tilgángi, jafnvel hinn ógudlega, til þess illa dags. 5. Hvør sem er dramblátur, sá er Drottni andstygd; eg vil ábirgjast hann sleppur ekki hjá hegníngu. 6. Fyrir miskun og trúfesti forlíkast misgjørd, og af ótta Drottins víkja menn frá því illa. 7. Pegar Drottinn hefir velþókknan á mannsins vegum, svo lætur hann og svo hans óvini hafa frid vid hann. 8. Betra er lítid med réttu, heldur enn mikil inntekt med raungu. 9. Mannsins hjarta upphugsar sinn veg, en Drottinn stýrir hans gángi. 10. Spádómur er á Kóngsins vørum; í dómi mun hans munni ekki skjátla. 11. Rétt vog og metaskálar heyra Drottni til. Hans verk eru øll lódin í þýngjunni. 5. Mb. 25, 13.

12. Pad sé Kónginum vidurstygd ad gjøra rángt, því af réttlætinu stadfestist hásætid. 13. Réttlætisins varir séu Kónginum velþókknan, og þann sem talar med hreinskilni, skal hann elska. 14. Reidi Kóngsins er daudans eingill, en hygginn madur mun sefa hann. 15. Kóngsins hírlegt andlit er lífid og hans nád (gunst), er sem regn-ský fyrir sádid. 16. Ad afla sér vísdóms, hvørsu miklu betra er þad, enn ad afla sér gulls! og ad útvega sér hyggindi, þad er meir verdt enn silfur. 17. Vegur hinna

hreinskilnu er, ad víkja frá því illa; hvør sem gáir ad sínum vegi, sá vardveitir sitt líf. 18. Drambsemin fer á undan eydileggíngu, og stolt á undan falli. 19. Þad er betra ad vera audmjúkur í anda med þeim lítilmótlegu, enn ad skipta herfángi med þeim dramblátu. 20. Hvør sem er adgjætinn vid sín verk, sá finnur hamíngju; og sá er sæll sem treystir Drottni. 21. Hvør sá sem hefir hyggid hjarta, kallast vitur; og varanna sætleiki gefur ordunum krapt. 22. Hyggindi eru, fyrir þann sem eiga, lífsins uppspretta, en dáranna umvøndun er heimska. 23. Hjarta hins hyggna mentar hans munn, og eykur á hans vørum lærdóminn. 24. Lífslegt tal er hunángs seimur, sætt fyrir sálina og lækníng fyrir beinin. 25. Sá vegur er til, sem mønnum sýnist réttur, en hans endir er vegur til daudans. 26. Erfidis-mannsins húngur erfidar med honum, því hans munnur krefst þess af honum. 27. Belíals (óræstis) madur uppgrefur ólukku; á hans vørum er logandi eldur. 28. Falskur madur vekur upp þrætur, og bakmálugur madur kémur til vegar sundurlyndi milli kunníngja. 29. Vondskufullur madur tælir sinn náúnga, og leidir á þann veg, sem ekki er gódur. 30. Hann apturlokar sínum augum, til ad upphugsa hrekki, hann bítur sig í varirnar og framkvæmir illt. 31. Grá hár (hærur) eru heidurs krans, hann finnst á réttlætisins vegi. 32. Sá sem er seinn til reidi, er betri enn kappi (sá voldugi), og sá sem er herra síns sinnis, betri enn sá sem vinnur borgir. 33. Hlutum er kastad í skaut, en frá Drottni kémur hlutfallid.

## 17. Kapítuli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Betri er þurr munnbiti med ró, heldur enn fullt hús af vistum med argi. 2. Hygginn þræll drottnar yfir slæmum syni, og skiptir erfdinni milli brædranna. 3. Deiglan er til ad prófa silfrid, og brædslu ofninn gullid; en Drottinn er sá sem prófar hjørtun. 4. Sá vondi gefur gaum ad ránglátum vørum, og sá lýgni hlustar á gudlaust tal. 5. Hvør sem spottar fátækann, sá lastar hans Skapara; hvør sem gledst af ólukku, skal ei verda óhegndur. 6. Barna børn eru kóróna fyrir þá gømlu; og barnanna fedur eru þeirra heidur. 7. Ekki hæfir heimskum manni ypparlegt tal; miklu midur gøfugum manni ad tala lýgi. 8. Gáfa er gimsteinn í þess augum sem hana fær, hvørt sem hún snýr sér, gjørir hún lukku. 9. Hvør sem dylur yfirtrodslur, leitar vinsældar; en sá sem ýfir søkum, kémur til leidar sundurþikkju milli vina. 10. Adfindni fær meir á þann hyggna, heldur enn hundrad høgg á dárann. 11. Uppreisn leitar vissulega ólukku. En grimmur eingill mun móti henni sendur verda. 12. Þad er betra fyrir mann ad mæta byrnu, sem rænd er sínum húnum, heldur enn dáranum í hans flónsku. 13. Hvør sem launar gott med illu, frá þess manns húsi mun ekki hid illa víkja. 14. Ad byrja deilu, er sama sem ad opna vatnsrás; láttu því undan ádur enn keppnin verdur ákøf. 15. Hvør sem segir þann ógudlega saklausann, og hinn réttláta sekann; þeir bádir eru Drottni andstygd. 16. Hvar til skulu peníngar í dárans hendi? til ad kaupa vísdóm? Hann hefir ekki vit til þess. 17. Vinurinn elskar ætíd, en sem bródir fædist hann til lids í naudum. 18. Þann skortir vit sem strax lofar og geingur í borgun fyrir sinn náúnga. 19. Hvør sem elskar yfirtrodslu, sá elskar deilu. Hvør sem gjørir sínar dyr ofháar, sækist eptir hruni. 20. Vanartugt hjarta finnur ekkért gott, og sá sem hefir rángsnúna túngu, fellur í ógjæfu. 21. Sá sem getur af sér dára, getur hann sér til sorgar, og fadir heimskíngjans mun ei gledjast.

22. Gladt hjarta géfur góda heilsu, en hryggur hugur skrælir beinin. 23. Sá ógudlegi tekur (vid gáfum leynilega) til ad beigja réttarins veg. 24. Vísdómurinn er þeim hyggna fyrir augum, en dárans augu eru vid jardarinnar enda. 25. Flónslegur sonur er ángur sínum ødur, og sorg þeirri sem hann fæddi. 26. Þad er ekki gott ad sekta þann réttláta, né ad berja þá gøfugu fyrir (þad sem gjøra) rétt. 27. Sá sem sparar sitt tal, géfur til kynna hyggindi, og sá sem ekki er ørlyndur, hann er vitur. 28. Dárinn væri jafnvel haldinn vitur, ef hann þegdi, sá sem læsir sínum vørum er hygginn.

## 18. Kapítuli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Sá sérlyndi leitar þess er hann gyrnist, hann íllskast vid allt hyggilegt. 2. Heimskínginn hefir einga lyst til þekkíngar, heldur einasta til ad opinbera sitt hjarta, (segja sína meiníngu). 3. Þar sem sá ógudlegi kémur, þar kémur og fyrirlitníng, og med forsmán fylgist skømm. 4. Eins og djúp vøtn, eru ord af munni (viturs) manns; vísdómsins lind er sem sírennandi lækur. 5. Þad er ekki gott ad álíta persónu hins ógudlega, til ad beigja hinn réttláta fyrir rétti. 6. Dárans varir blanda sér í þrætu, og hans munnur sækist eptir høggum.

7. Dárans munnur verdur honum ad tjóni, og hans varir, snara fyrir hans líf. 8. Baknagarans ord eru sem krásir, þær fara nedst nidur í magan. 9. Sá sem er tómlátur í sínu verki, hann er bródir þess sóunarsama. 10. Drottins nafn er rambyggilegur turn; sá réttláti leitar þángad hælis og fær vørn. 11. Audur hins ríka er honum vígi, sem hár múrveggur í hans hugsan. 12. Mannsins hjarta metnast ádur enn hann fellur; og audmýktin geingur á undan heidri. 13. Svari nokkur ádur enn hann heyrir, svo er honum þad heimska og skømm. 14. Hugur mannsins heldur honum uppi í hans sjúkdómi, en bili hug, hvør þolir þad? 15. Hjarta hins vitra kaupir þekkíngu, og eyru hinna vísu leita eptir fródleik. 16. Gáfur útvega manni rúm, og leida hann fram fyrir stórhøfdíngja. 17. Sá sem verdur fyrri til ad byrja mál, sýnist hafa réttann málstad; en komi hans mótpartur, þá yfirheyrdu hann. 18. Hlutfall nidursetur deilur, þad skér úr milli hinna voldugu. 19. Stygdann bródur, er erfidara ad vinna, enn rambyggilega borg; og þrætur (milli brædra), eru sem grindur úti fyrir høll. 20. Madurinn mettar sinn búk af ávexti síns munns, af inntekt sinna vara sedst hann. 21. Daudi og líf er í túngunnar valdi; og sá sem hana brúkar, mun eta hennar ávøxt. 22. Sá sem finnur konu, finnur gódann hlut, øg þiggur velgjørd af Drottni. 23. Audmjúkar bænir talar sá fátæki; en sá ríki svarar med hardyrdum. 24. Einn hefir vini sér til tjóns; samt er sá vinur til, sem er tryggari enn bródir.

## 19. Kapítuli.

Enn nú sundurlaus sannmæli.

1. Betri er sá fátæklíngur sem geingur í sinni hreinskilni, heldur enn sá madur sem vondar varir hefir, og er fávís*). 2. Já, grædgi án þekkíngar er ekki gód, sá sem flanar áfram, rekur í á sér tærnar. 3. Mannsins heimska gjørir hans veg ógreidann, en hans hjarta íllskast vid Drottinn. 4. Audur útvegar marga vini, en sá fátæki verdur af sínum vini yfirgéfinn. 5. Falsvitni verdur ekki óstraffad, og sá sem útspýr lýgi, sleppur ekki undan (straffi). 6. Margir smjadra fyrir augliti hins gøfuga (ørláta); og hvøreinn er vinur hins gjafmilda.

V. 23. Adr: tekur gáfur úr barmi. V. 1. *) Adr: þótt hann sé ríkur.

7. Allir brædur hins fátæka hata hann; hvørsu miklu framar firrast hann vinir hans! hann eltir ordin, en þeir eru þar ekki. 8. Sá sem útvegar sér hygginidi, elskar sitt líf, sá sem vardveitir skynsemi, finnur hid góda. 9. Fals-vitni verdur ei óstraffad, og sá sem útspýr lýgi tortínist. 10. Þad hæfir ei þeim heimska ad eiga góda daga, miklu sídur þræli ad drottna yfir furstum. 11. Þad er mannsins hyggni, ad hafa lánglundargéd; og hans heidur, ad sjá ekki mótgjørdir. 12. Kóngsins reidi er eins og øskur ljónsins; en hans hylli eins og døgg á grasi. 13. Fávís sonur er síns fødurs ólukka, og nøldrandi kona, ýduglegur leki nidur af þaki. 14. Hús og audur erfist eptir foreldra, en frá Drottni kémur skynsøm kona. 15. Letin svæfir, og ydjulaus sál mun húngur þola. 16. Sá sem vardveitir bodordid, vardveitir sitt líf, en hvør sem ekki gáir ad sínum vegi, er daudans matur. 17. Hvør sem miskunar sig yfir fátækann, sá lánar Drottni, og hann mun betala honum hans velgjørníng. 18. Aga þú son þinn medan enn nú er von; þín sál dyrfist samt ekki ad sálga honum. 19. Sá sem er frekur í brædi, mun lída straff, ef ad þú hjálpar honum, svo máttu hjálpa honum aptur og aptur. 20. Gégn þú rádum og þigg umvøndun, ad þú gétir ord-id ad sídustu hygginn. 21. Margar rádagjørd-ir eru i mannsins hjarta, en rád Drottins stend-ur stødugt. 22. Þad gjørir manninn vinsæl-an ad hann er miskunsamur, og sá fátæki er sælli enn a) lygarinn.

23. Otti Drottins leidir til lífsins, sá (sem óttast Drottinn) hvílir mettur, og verdur ei heimsóktur af ólukku. 24. Sá lati réttir sína hønd í fatid, en nennir ekki ad bera hana upp ad munni sínum aptur. 25. Sláir þú hinn hádgjarna, verdur sá einfaldi hygginn; ad um-vanda vid hinn framsýna, þad leidir hann til þekkíngar. 26. Sá sem beitir ofbeldi vid fød-ur sinn og slær módur sína, er slæmur og sví-virdilegur sonur. 27. Lát af, minn son! ad hlýda á þá uppfrædíngu sem leidir þig á villu-veg frá skynsømu tali. 28. Vondskufullt vitni spottar réttinn, og munnur ógudlegra svelgir rángindi. 29. Hádgjørnum manni eru hefndir reidubúnar og heimskíngannu baki høgg.

## 20. Kapítuli.

Sundurlausar greinir.

1. Vínid er spottari, sterkur drykkur glamr-ari; hvør sá sem hér af tælist, er ekki hygginn. 2. Kóngsins ótti er svo sem grenjan ljónsins, hvør sem hann egnir til, syndgar á móti sínu lífi. 3. Þad er manns æra ad halda sér frá þrætu, en hvør einn dári hleipur á sig. 4. Af því vetur er, vill sá lati ekki plægja; hann mun leita (sníkja) þegar uppskéran er, en ekkért fá. 5. Ráð mannsins hjarta er sem í djúpu vatni (væri), en vitur madur fiskar þad upp. 6. Marg-ir menn gjøra mikid, hvør af sinni gódsemi, en einn mann rétt trúfastann, hvør finnur hann? 7. Í sinni rádvendni geingur sá réttláti á fram. Sæl eru hans børn eptir hann. 8. Þegar Kóngurinn situr á dómstólnum, tvístrar hann øllu íllu med sínum augum. 9. Hvør gétur sagt: eg hefi hreinsad mitt hjarta, eg er hreinn af synd. 10. Breitileg vigt og mælir, er hvør-tveggja Drottni andstygd. 11. Ungmennid má þegar þekkja af þess verkum (íþróttum), hvørt þad muni verda hreint, og þess athafnir réttar. 12. Eyrad sem heyrir og augad sem sjer, hvøru-tveggja hefir Drottinn gjørt. 13. Elska þú ekki svefninn, svo þú verdir ekki fátækur; haf þú þín augu opin, svo skaltu sedjast af braudi. 14. Þad er slæmt! þad er slæmt! segir kaupandinn, en þá hann geingur burt, hrósar hann því sama; 15. Nog er til af perlum og gulli, en dýrari

V. 22. *a.* Sem segist ekki vera rikur, svo hans verdi ekki leitad.

verkfæri eru vitrar varir. 16. Tak þú hans föt, því hann hefir geingið í borgun fyrir annann mann, og taktu af honum pant sakir þess óþekkta. 17. Vel smakkast mörgum falsbrauð, en eptirá fyllist munnurinn af aur, 18. ráðagjörðir teknar með umhugsan, gilda, heya þú því ørløg með ráðdeild. 19. Sá sem uppljóstar leyndarmálum, er sem baktalari; haf þú eingin mök við þann sem svíkur með sínum vørum. 20. Hvør sem formælir føður sínum eða móður, þess skriðljós slokknar í niðamirkri. 21. Sá arfur sem maður í upphafi flýkist eptir, mun ekki blessast á endanum. 22. Seig þú ekki: eg vil endurgjalda íllt! bíð þú Drottins og hann mun hjálpa þér. 23. Misjöfn vigt er viðurstygð fyrir Drottni; og svikuar metaskálir eru ekki góðar. 24. Frá Drottni koma mannsins spor, hvørnig gétur hann skinjað sinn veg? 25. Það er manninum snara að hlaupa á sig með það heilaga; og síðan að ransaka það eptirað heitið er gjört. 26. Hygginn Kóngur tvístrar þeim ógudlegu, og lætur hjólið yfir þá gánga. 27. Mannsins andi er ljós Drottins, sem ransakar alla afkima í hans hjarta. 28. Miskunsemi og trúfesti varðveita Konúnginn; og hann stiður sitt hásæti með kjærleikanum. 29. Kraptar hinna úngu er þeirra prýði, og hærur eru heiður hinna gømlu. 30. Bolga og sár eru hreinsun hins vonda, og høgg sem gánga næst hans lifi.

## 21. Kapituli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Hjarta Kóngsins er í Drottins hendi eins og vatnslækir; hann beigir það til hvørs sem hann vill. 2. Hvørjum manni þikja sínir eigin vegir réttir, en Drottinn vegur hjørtun, 3. réttvísi og réttindi er Drottni þókknanlegra enn fórn. 4. Augnanna þótti, og hjartans dramb, og ógudlegra skriðljós, er synd, 5. hugsunarsemi hins kostgjæfna leiðir til nægta, en hvør sem hleypur (hann hleypur) sannarlega til tjóns, 6. féssjóður útvegaður með falskri túngu, er hverfandi hégómi hjá þeim, sem leita dauðans. 7. Ogudlegra ofbeldi hrífur þá burt, því þeir færast undan að gjøra rétt. 8. Mjøg boginn er þess manns vegur sem hlaðinn er synd, en verk hins hreina eru bein áfram. 9. Það er betra að búa í horni á þakinu, enn í félagskap við hjú með kíssamri konu. 10. Sál hins ógudlega hefir lyst til ílls, jafnvel vinurinn finnur ekki náð fyrir hans augum. 11. Straffi menn spottarann, þá verður hinn einfaldi hygginn; og þegar menn uppfræða hinn vitra, þá eykst honum þekking. 12. Sá réttláti gáir að húsi hins ógudlega, þá hann (Guð) steypir þeim ógudlegu í ólukku. 13. Hvør sem apturbyrgir sín eyru fyrir hrópi hins lítilmótlega, sá mun hrópa og ei verða bænheyrður. 14. Gáfa í leyni heptir reiði, og skeinkur í skaut lagður ákaflega grimd. 15. Það er þeim réttláta gleði að gjøra rétt, en skélfing illvirkjanum. 16. Sá maður sem villist frá skinseminnar vegi, mun hvílast í dauðra manna søfnuði. 17. Sá sem elskar gleði, mun líða skort; hvør sem elskar sælgæti, (vín og viðsmjør) verður ekki ríkur. 18. Sá ógudlegi verður lausnargjald fyrir hinn réttláta og sá limski kémur fyrir hinn hreinskilna. 19. Það er betra að búa á eyðimørku enn með kíssamri og leiðigjarnri konu. 20. Í búst øðum hins vísa finnst dýrmætur fjársjóður og viðsmjør; en dárinn uppsvelgir það. 21. Hvør sem sækist eptir réttvísi og miskun, mun finna lífið, réttlæti og heiður. 22. Sá vísi vinnur borg hinna voldugu, og fellir það vígi, sem gjørði þá ugglausa. 23. Hvør sem varðveitir sinn munn og sína túngu, sá varðveitir sína sál fyrir margri ángist. 24. Sá stolti og drambláti, hans nafn er spottari, hann breitir þóttalega og falslega. 25. Laungun hins lata deyðir hann,

því hans hendur teljast undan ad erfída. 26. Sá ágjarni girnist allt, en sá gjafmildi géfur og sparar ekki. 27. Fórn hinna ógudlegu er vidurstygd, hvørsu miklu framar sé hún framborin syndsamlega (í vondum tilgángi). 28. Ljúgvotturinn mun tortínast, en sá madur sem géfur gaum (sannleika), má alltaf tala. 29. Sá falski lagar sitt andlit, en sá hreinskilni stefnir sína leid. 30. Ekki dugir vitska, ei heldur framsýni né rád, á móti Drottni. 31. Hestinn uudirbúa menn til orustu dagsins; en sigurinn er hjá Drottni.

## 22. Kapítuli.

Samslags sannmæli.

1. Gott mannord skal heldur kjósa enn mikinn aud; vinsæld er betri enn silfur og gull. 2. Ríkur og fátækur hittast, Drottinn skapadi báda. 3. Sá hyggni sjer ógjæfuna og felur sig, en sá einfaldi heldur áfram, og fær á því ad kénna. 4. Audmýktarinnar ávextir, Drottins ótta, eru audur og heidur og lífid. 5. Þyrnar, snørur eru á vegi hins falska, sá sem vill vardveita sitt líf, komi þar ekki nærri. 6. Kénn þeim únga þann veg sem hann á ad gánga, og þegar hann eldist mun hann ei víkja þar frá. 7. Sá ríki drottnar yfir hinum fátæka, og sá sem tekur lán, er þræll þess sem lánar. 8. Sá sem sáir ránglæti, mun uppskéra ólukku, og hans hegníngar hrís er reidubúid. 9. Sá sem hefir gódgjarnt auga, verdur blessadur, því hann géfur þeim fátæka af sínu braudi. 10. Rek þú burt spottarann, svo fer þrætnin burt, þá mun linna kifi og brixlyrdum. 11. Hvør sem elskar hreint hjarta, og á hvørs vørum þad gédfelda er, þess vinur er Kóngurinn. 12. Augu Drottins géfa gaum ad framsýni, en hann kollkastar svikarans ordum. 13. Sá lati segir: „ljón er úti fyrir; kannské eg verdi drepinn midt á strætinu". 14. Djúp grøf er munnur annarlegrar konu, sá, hvørjum Drottinn er reidur, fellur þar í. 15. Hvørsu sem heimskan situr føst í hjarta hins únga, mun þó agans vøndur reka hana lángt frá honum. 16. Menn þreingja ad þeim lítilmótlega, og gjøra hann med því ríkann; menn géfa þeim ríka, og hann lídur skort.

17. Hneig þitt eyra og heyr ord hinna vísu, og snú þínu hjarta til minnar uppfrædíngar. 18. Því þad er fallegt, ef þú vardveitir þau í þínu hjarta; ef þau eru øll til reidu á þínum vørum. 19. Svo þitt traust géti verid til Drottins, hefi eg þig uppfrædt í dag; já, einmidt þig. 20. Sannarlega skrifa eg þér ypparlegt um áform og framsýni. 21. Til ad gjøra þér kunnugann rétt og sannleiks ord, svo þú gétir svarad þeim sannleika sem þig sendu. 22. Rændu ekki þann lítilmótlega af því hann er lítilmótlegur, og undirþrykk þú ekki þann fátæka í borgarhlidinu. 23. Því Drottinn tekur ad sér þeirra málefni, og sviptir hvørn þann lífi sem rænir þá. 24. Haf þú ekki samlag vid þann, sem er reidigjarn, og kom þú ekki til þess fljótlynda, 25. til þess þú lærir ekki hans veg, og sála þín fái ekki þaraf snøru. 26. Vertu ekki medal þeirra sem handsala, medal þeirra sem gánga í borgun fyrir skuldir. 27. Hafir þú ekkért ad betala med, hvar fyrir skyldir þú láta þá taka þína sæng undan þér. 28. Fær þú ekki úr stad hin fornu landamerki sem þínir fedur hafa sett. 29. Sjáir þú mann sem er duglegur í sínum verkum, hann mun þjóna Konúngum, og ekki þeim sem eru ótignir.

## 23. Kapítuli.

Sannmæli.

1. Þegar þú situr til bords med stjórnarherra, þá gá vel ad, hvørn þú hefir fyrir þínu augliti. 2. Og set þér hníf á barka, ef þú

V. 2. Þér er betra ad sálga þér, enn vera óhæverskur.

ert grádugur! 3. Lát þig ekki lánga í hans kræsíngar, því þær eru tálfæda. 4. Mæd þig ekki med eptirsókn audæfa; hættu ad brúka vit þitt til þess! 5. Viltu láta augu þín fljúga eptir því sem (skjótt) verdur ad aungvu? því þad gjörir sér arnarvængi, og flýgur til himins. 6. Et ekki braud hjá þeim sem hefir íllt auga, og lát þig ei lánga í hans krásir. 7. Því eins og hann hugsar, svo er hann; hann segir vid þig: et og drekk! en hans hjarta er ekki med þér. 8. Þeim munnbita sem þú hefir etid, verdur þú þó ad æla upp; og svo hefir þú spillt þínum blídmælum. 9. Taladu ekki fyrir dárans eyrum, því hann forsmáir hyggindi þíns tals. 10. Flyt ekki þau fornu landamerki, og gakk ei á födurlausra akra. 11. Því þeirra frelsari er sterkur, hann mun taka ad sér þeirra málefni móti þér. 12. Ofurgéf hjarta þitt umvönduninni, og þín eyru vísdómsins ordum.

13. Skjóttu ekki þeim únga undan aga, því þó þú sláir hann med vendi, deyr hann ekki. 14. Þú slær hann med vendi og frelsar hans sálu frá helju. 15. Minn son! þegar þitt hjarta er hyggid, svo gledur mitt hjarta sig, já, eg gled mig. 16. Og mitt hjarta fagnar, þegar þínar varir tala þad sem beint (rétt) er. 17. Lát ei hjarta þitt misunna syndurum, heldur sækstu daglega eptir Drottins ótta. 18. Því þegar kémur ad því sídasta, skal þín von ekki verda ad eingu. 19. Heyr þú, minn son! og vertu hygginn, og stýr þínu hjarta midt á veginn. 20. Vertu ei med drykkjumönnum, med þeim sem eydileggja sitt hold! 21. Því drykkjumenn og óhófsmenn verda snaudir, og (mikill) svefn klædir í tötra. 22. Hlýd þínum födur! hann gat þig, og forsmá ekki þína módur, þó hún sé ordin gömul. 23. Kaup þú sannleika, og sel hann ekki, kauptu vísdóm, umvöndun og hyggindi! 24. Fadir hins réttláta fagnar, sá sem gat vitrann son, gledst af honum. 25. Láttu födur og módur fagna, lát hana gledjast, sem fæddi þig! 26. Minn son! géf mér hjarta þitt, þín augu géfi gaum ad mínum vegi! 27. Því skækjan er djúp gröf og sú annarlega kona þraungur pittur. 28. Já, hún liggur í leyni eins og ræníngi, og safnar ad sér þeim ósvífnu medal mannanna. 29. Hvar er vei? hvör ollir sér meidsla? hvar eru deilur? hvar klögun? hvör fær sár án orsaka? hvör glódar auga (raud augu)? 30. Þeir sem leingi tefja hjá víninu, þeir sem koma saman til ad smakka kriddada drykki. 31. Horf þú ekki á vínid hvad raudt þad er, hvörsu þad sýnist eins og perlur í bikarnum, hvörsu þad rennur ljúflega nidur. 32. Seinast bítur þad eins og höggormur og stíngur sem nadra. 33. Þín augu kynnu þá ad líta eptir annarlegum konum, og þitt hjarta ad tala ránghverfa hluti. 34. Þú kynnir ad verda sem sá er sefur á hafinu, eins og sá sem sefur efst í mastri. 35. Þeir bördu mig (muntu þá segja) eg kénndi ekki til þess; þeir hrintu mér, eg vard þess ekki var; nær mun eg vakna? aptur vil eg leita vínsins.

V. 6. Illt auga: öfundsýki.

## 24. Kapítuli.

Reglur í umgeingni.

1. Öfunda ekki vonda menn, og óska ekki ad vera med þeim. 2. Því hjarta þeirra ástundar skada, og þeirra varir tala meinsemi. 3. Med vísdómi byggist húsid, og af framsýni verdur þad rambyggilegt. 4. Af þekkíngunni fyllast herbergin med allslags dýrum og gédfeldum audæfum. 5. Vitur madur er sterkur, og sá framsýni madur eflir sinn krapt. 6. Því med hyggilegri stjórn skaltu heja þitt stríd; og sigurinn kémur af rádgjafanna fjölda. 7. Vitskan er dáranum of há; í borgarhlidinu lýkur hann ekki upp sínum munni. 8. Hvör sem

hugsar um ad gjøra íllt, þann kalla menn skálk.
9. Dárans fyrirtæki eru synd, og spottarinn er
vidursingd medal manna. 10. Missir þú hug
á neydarinnar degi, þá missir þú líka mátt.
11. Bjargadu þeim sem eru leiddir til lífláts;
og drag þig ekki í hlé vid þá sem dreignir eru
til dráps! 12. Ef þú segdir: „sjá! vér þekk-
jum hann ekki", mun ei sá sem vegur hjørtun vita
þad? mun ekki sá sem géfur gaum ad sálu þinni
þekkja þad? hann betalar manninum eptir hans
verkum. 13. Neyt þú hunángs, minn son!
því þad er gott, og hunángsseims, sem er
sætur fyrir þinn góm. 14. Eins skaltu læra
vitskuna fyrir þína sálu; þegar þú finnur hana,
verdur þad umbun, og þín von skal ekki verda
ad eingu. 15. Umsit ekki, sem sá ógudlegi,
bústad hins réttláta, haggadu ekki um hans
hvílu. 16. Því sá réttláti fellur sjø sinnum,
og stendur þó upp aptur, en þeir ógudlegu
søkkva nidur í ólukku. 17. Fagna ekki yfir
falli þíns óvinar, og lát ei hjarta þitt hlakka
yfir því, ad hann steypist, 18. ad Drottinn
sjái þad ekki, og honum máské misþóknist
þad, og hann snúi sínni reidi frá honum (til
þín). 19. Lát ekki reidi þína kvikna, sakir
vondra manna (velgeingni) og øfunda ekki
þá ógudlegu. 20. Því sá vondi mun ei fá
góð afdrif, skriðljós ógudlegra slokknar. 21.
Son minn! óttastu Gud og Kónginn, sam-
laga þig ei uppreistar mønnum. 22. Því þeirra
ólukka kémur sviplega, og hegníng Guds og
Kóngsins, hvørstveggja, hvør þekkir hana?

23. Líka eru þessar greinir af vísum samdar:
ad fara í manngreinar álit fyrir rétti, er ekki
gott. 24. Hvør sem segir vid hinn seka: þú
hefir rétt, honum formæla menn, honum reidist
fólkid. 25. En þeim sem straffar, mun vel
vegna, yfir hann kémur góð blessan. 26. Sá
géfur koss á munn, sem géfur gott svar. 27.
Annastu fyrst um verk þitt utanhúss, og undir-
bú þinn akur; bygg þú sídan þitt hús. 28.
Vertu ekki án orsaka vitni móti þínum náúnga,
skyldir þú pretta med þínum vørum? 29. Seg
þú ekki: eins og hann gjørdi mér, svo vil eg gjøra
honum; eg vil betala hvørjum eptir hans verk-
um. 30. Eg gékk yfir letíngjans akur og framhjá
víngardi hins fávísa, 31. og sjá! á honum voru
eintómir þistlar, allur var hann þakinn netlum,
og steingyrdíngin var nidurfallin. 32. Eg
vard þess var, og setti þad á mig, eg sá þad,
og dróg þar af lærdóm. 33. Viltu ennú sofa
dálítid? viltu blunda lítid eitt? liggja nokkud
enn, med samanløgdum høndum? 34. Þá mun
fátæktin koma skjótt yfir þig, sem landhlaupari og
skortur yfir þig sem madur, vopnadur med skyldi,
(ræníngi).

## 25. Kapituli.

Seinna safn sammæla.

1. Þetta eru líka Ordskvidir Salómons,
sem menn Esekiæ Júda Kóngs hafa safnad:
2. Þad er Guds heidur ad fela ordid a), en
þad er Kónganna heidur, ad ransaka ordid. 3.
Himininn er hár, og jørdin er djúp, svo veri og
Kónganna hjarta óransakanlegt. 4. Taktu hrod-
ann frá silfrinu, svo gétur Gullsmidur gjørt úr
því kér. 5. Taktu þann ógudlega frá Kóngs-
ins augliti, svo mun hans hásæti stadfestast af
réttvísi. 6. Hrósa þú ekki sjálfum þér frammi
fyrir Kónginum, og gakk ekki á pláts hinna
mektugu. 7. Því þad er betra ad menn segi
vid þig: færdu þig híngad upp, enn ad menn
skuli gjøra þér nidurdrep í furstans augsýn, sem
ad þín augu sjá. 8. Vertu ekki fljótur til ad
deila, svo ad þú ekki gjørir eitthvad seinast, þegar
í útgaungunni, þegar þinn mótpartur gjørir gis
ad þér. 9. Framfylg þú máli þínu móti þínum
mótparti, en opinbera þú ekki hins annars leynd-
armál, 10. ad sá gjøri þér ekki hádúng, hvør

V. 2. *a)* Ordid eda hlutinn.

sem heyrir, og þú komist svo ekki hjá illu mannordi. 11. Ord í tíma talad, er sem gullepli med silfur verki. 12. Eins og gullhríngur og státs af fínasta gulli, er advørun hins vísa fyrir athugasamt eyra. 13. Eins og kuldi af snjó á haustyrkju tímanum, svo er trúr sendibodi þeim sem senda hann; hann endurnærir sál sins húsbónda. 14. Eins og ský og regnlaus vindur, er sá madur, sem stærir sig af gáfum falsandi, (lofar og géfur ekki). 15. Med lánglundargédi verdur høfdínginn yfirtaladur, mjúk túnga sundurbrýtur jafnvel beinin. 16. Finnir þú húnáng, þá et eptir þørfum, svo þú ekki ófmatist og ælir því upp. 17. Lát þinn fót skjaldan koma í þíns stallbródurs hús, svo hann ekki verdi leidur á þér og hati þig. 18. Eins og hamar, sverd og hvøss ør, er sá madur sem talar falskann vitnisburd á móti sínum náúnga. 19. Eins og brotin tønn og rasandi fótur, er traust á þeim svikula á neydarinnar degi. 20. Sá sem sýngur vísur fyrir sorgfullu hjarta, er eins og sá sem afklædist í kulda, og eins og edik á saltpétri. 21. Ef óvin þinn húngrar, þá metta hann med braudi, og ef hann þyrstir þá géf honum vatn ad drekka! 22. Því ad þú safnar eldsglódum yfir hans høfud; og Drottinn mun endurgjalda þér þad. 23. Vindur úr dimmu fædir regn, og túnga úr leyni, reidugleg andlit. 24. Þad er betra ad búa í horni á þakinu, heldurenn í heimilismanna félagskap, hjá kífsamri konu. 25. Gódur bodskapur af fjærlægu landi, er sem kalt vatn þyrstri sálu. 26. Réttlátur madur sem fellur fyrir þeim ógudlega, er sem gruggadur brunnur, og sem skémd lind. 27. Ad eta mikid hunáng er ekki gott; og ransókn þúngra (hluta) þúng. 28. Sá madur sem ei gétur stødvad sitt géd, er eins og nidurrifin borg án múrveggja.

## 26. Kapítuli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Snjór á ekki vid sumar, ekki heldur regn vid uppskéru, svo ber ei heidur heimskum manni. 2. Eins og titlíngurinn fløgrar um kríng og svalan flýgur burt, svo rammar ekki óverdskuldud formælíng. 3. Svipan á vid hestinn, og taumurinn vid asnann, eins vøndurinn vid dárans bak. 4. Svara þú ekki heimskum manni eptir hans heimsku, svo þú verdir ekki honum líkur. 5. Svaradu þó þeim heimska eptir hans heimsku, svo hann ætli ekki ad hann sé hygginn. 6. Sá sem sendir ord med dára, høggur af sér fæturnar, og lídur órétt. 7. Eins og læri hins halta eru máttlaus, svo eru og snilliyrdi í dárans munni. 8. Eins og gimsteinn er í grjót hrúgu, svo er hvør sem géfur dáranum heidur. 9. Eins og þyrni grein í hendi drukkins manns, svo eru spakmæli í dárans munni. 10. Hvør sem semur vid dára, og semur vid mann á ferd, er eins og skytta sem hæfir allt. 11. Eins og hundurinn snýr aptur til sinnar spýu, svo ítrekar dárinn sína heimsku. 12. Sjáir þú mann sem þikist vitur, þá er af dáranum meira ad vænta enn honum. 13. Sá lati segir: þar er grenjandi (ljón) á veginum, ljón á strætunum. 14. Hurdin snýst á hjørum; sá lati í sinni hvílu. 15. Sá lati hefir sína hønd í fatinu; þad er honum erfidt ad koma henni aptur uppad munninum. 16. Sá lati þikist hyggnari enn sjø, sem svara af viti. 17. Sá sem fer um veg og blandar sér í deilur er honum koma ekki vid, er líkur þeim er tekur um eyru á hundi. 18. Eins og sá ódi, sem kastar logbrøndum, pílum og drepandi skeitum, 19. svo gjørir sá madur, sem svíkur sinn náúnga, og segir svo: er eg ekki ad gjøra ad gamni mínu. 20. Þegar (eldi) vidinn

V. 23. Ur dimmu: adr: nordanvindur.

þrýtur, slokknar eldurinn, og þegar einginn er rógberinn, stødvast deilurnar. 21. Eins og kol tilheyra glædum, og vid þarf til ad gjøra eld, svoleidis þrætugjarnan mann til ad vekja deilur. 22. Rógberans ord, eru eins og krásir, sem þreingja sér nidur innst í magann. 23. Eins og leirkér, yfirstrokid med silfur hroda, svo eru fjørugar varir og vondt hjarta. 24. Hatursmadurinn talar fagurt, en í sínu hjarta elur hann svik. 25. Þegar hann talar þægilega, þá trúdu honum ekki; því sjø vidurstygdir eru í hans hjarta. 26. Hatur má fela med kjænsku; en vondskan kémst upp á þínginu. 27. Sá sem grefur grøfina fellur þar í; og á þann, sem steininum veltir, veltur steinninn. 28. Følsk túnga hatar þá, sem hún vill sundurrífa, og háll munnur ollir tjóns.

## 27. Kapítuli.

Sundurlaus spakmæli.

1. Hrósadu þér ekki af deginum á morgun, því þú veitst eigi hvad dagurinn kann ad koma med. 2. Láttu adra, en ekki þinn eigin munn, hrósa þér; annara, ekki þínar eigin varir. 3. Steinar eru þéttir fyrir, og sandurinn þúngur, en reidi dárans er þýngri enn hvørttveggja. 4. Heiptin er grimm, og reidin er svæsin, en hvør gétur stadist fyrir øfund? 5. Betri er opinber hýdíng, enn leynileg ást. 6. Sár, sem vinurinn særir, er trúfesti; en kossar hatursmannsins, eru prettir. 7. Sá saddi tredur ofaná hunángs seim; en þeim húngrada er allt hid beiska sætt. 8. Eins og fugl sem flýgur lángt frá sínu hreidri, er sá madur sem fløgrar lángt frá sínum bústad. 9. Vidsmjør og reykelsi gledja hjartad; og indæll er vinurinn sakir hjartans ráda. 10. Yfirgéf ekki þinn vin, né þíns føḑurs vin. Í hús bródur þíns gétur þú ekki komid á þínum mótgángs degi, betri er þá nábúi í nánd, heldurenn bródir í fjærlægd. 11. Vertu hygginn, minn son! og gled mitt hjarta, þá gét eg svarad þeim ordi sem smána mig. 12. Sá hyggni sjer ólukkuna og felur sig; en sá einfaldi geingur áfram, og fær ad kénna á því. 13. Tak hans klædnad, því hann gékk í borgun fyrir annan; og taktu af honum pant fyrir þá framandi. 14. Hvør sem blessar sinn náúnga med hárri raust árla á morgnana, honum tilreiknast þad sem formælíng. 15. Yduglegur leki af þakinu á regndegi og þrætugjørn kona, er líkt hvad ødru. 16. Hvør sem leitast vid ad stødva hana, sá stødvar vindinn, og vidsmjørid í hans hægri hendi segir til sín. 17. Eins og járn hvetur járn, svo hvetur einn madur annann. 18. Hvør sem vardveitir sitt fíkjutré, mun eta þess ávøxt; og hvør sem annast sinn herra, mun verda heidradur. 19. Eins og andlit snýr ad andliti, þá madur skodar sig í vatni; svo snýr mannsins hjarta sér ad manninum. 20. Undirheimar og afgrunnid mettast ekki, svo mettast og ekki mannsins augu. 21. Deiglan prófar silfrid og brædslu ofninn gullid, eins madurinn af þess munni sem honum hrósar. 22. Þó þú sundursteitir dárann í morteli med stauti innanum grjón, skal hans heimska ei frá honum víkja. 23. Hafdu gát á þínum saudum; annastu hjardirnar. 24. Því audur varir ekki æfinlega; og ætla ad kóróna gángi (ad erfdum) frá kyni til kyns? 25. Grasid hverfur og únggresi grænkar aptur og jurtum er safnad á fjøllum. 26. Lømbin géfa þér fatnad, og kidin eru akurs virdi; þá hefir þú nóga geita mjólk, þér til næríngar, til fædslu þínu heimili, og til vidurlífis þínum vinnukonum.

## 28. Kapítuli.

Líka sundurlaus spakmæli.

1. Þeir ógudlegu flýa, þótt einginn elti

þá, en sá réttláti er øruggur sem úngt ljón. 2. Þegar landid gjørir uppreisn, verda í því margir furstar; en séu menn framsýnir og hyggnir, svo lifir (sá rétti stjórnari) leingi. 3. Fátækur ofbeldismadur sem bolar út hinn lítilmótlega, er eins og regn sem nidurslær (korni), svo ad þar verdur eingin fæda. 4. Þeir sem sjálfir víkja frá løgunum, hrósa þeim ógudlega; en þeir sem vardveita løgin standa á móti honum. 5. Vondir menn skynja ekki hvad rétt er; en þeir sem leita Drottins skilja allt. 6. Betri er sá fátæki sem framgeingur í sinni einfeldni, enn sá sem fer krókaveg, þótt hann sé ríkur. 7. Sá sem vardveitir løgin, er hygginn sonur; en sá sem er stallbródir óhófs manna, gjørir fødur sínum skømm. 8. Hvør sem eykur sinn aud med okri og ásælni, safnar honum fyrir þann sem gjafmildur er vid fátæka. 9. Hvør sem frásnýr sínu eyra, svo þad heyri ekki løgin, þess bæn er og vidurstygd. 10. Hvør sem afvegaleidir þá gódu á vondann veg, sá mun detta í sína eigin grøf; en þeir rádvøndu munu erfa hid góda. 11. Ríkur madur þykist hygginn; en sá fátæki sem er vitur, gagnskodar hann. 12. Þegar þeir réttlátu gledjast, er mikil dýrd; en þegar ógudlegir komast upp, fela menn sig. 13. Sá sem felur sínar yfirtrodslur, mun ei lukku hafa, en sá sem medgeingur þær og lætur af þeim, skal miskun hljóta. 14. Sæll er sá madur sem er ætíd hræddur; en sá sem forherdir sitt hjarta fellur í ógjæfu. 15. Einsog grenjandi ljón og grádugur bjørn, er sá ógudlegi sem drottnar yfir fátæku fólki. 16. Fursti, sem hefir lítid vit, adhefst marga kúgan; en hvør sem hatar ágirnd, mun leingja sína daga. 17. Sá madur sem hefir úthellt blódi nokkurs manns, skal vera útlagi allt til grafarinnar, svo ad hann sé ekki handtekinn. 18. Hvør sem geingur rádvandlega skal frelsast; en sá sem geingur krókaveg mun einhvørn tíma falla. 19. Hvør sem ræktar sína jørd, mettast af braudi; en sá sem geingur í hóp med ydjuleysíngjum, mettast af fátækt. 20. Rádvandur madur verdur ríkur af blessan; en sá sem flýtir sér ad audgast, verdur ei óstraffadur. 21. Hlutdrægni er ekki gód; og þó gjørir margur rángt sakir eins braudbita. 22. Sá sem hefir íllt auga, hradar sér til auds, og veit ekki ad skortur skal koma yfir hann. 23. Hvør sem ávítar menn, fær seinast meiri vinsæld, enn sá sem smjadrar med túngunni. 24. Hvør sem rænir fødur sinn eda módur sína, og segir: þetta er eingin yfirtrodsla, sá er ræníngjans stallbródir. 25. Sá sem girnist mikid, hann kémst í þrætur; en sá sem treystir Drottni, verdur feitur. 26. Sá sem treystir sínu hjarta er bári; en sá sem geingur hyggilega, mun frelsast. 27. Hvør sem géfur þeim snauda skal ekki skort lída; en yfir þann sem apturlykur sínum augum, kémur mørg óbæn. 28. Þegar þeir ógudlegu komast upp, felur fólk sig; en þegar þeir tortínast, fjølga hinir réttlátu.

## 29. Kapituli.

Enn nú sundurlaus sannmæli.

1. Sá þrætugjarni og hardsvíradi mun hastarlega sundurmerjast, og þar mun eingin lækníng fást. 2. Þegar þeir réttlátu fjølga, gledst fólkid, en þegar þeir ógudlegu drottna, andvarpar fólkid. 3. Sá sem elskar vísdóm gledur sinn fødur; en hvør sem skjækjur adhyllist, eydir sínu fé. 4. Kóngurinn eflir landid med løgum; en sá sem tekur mútur, veikir þad. 5. Sá madur, sem smjadrar fyrir sínum náúnga, leggur net fyrir hans fót. 6. Í yfirtrodslu hins vonda er snara; en sá réttláti fagnar og gledst. 7. Sá réttláti þekkir málefni hins lítilmótlega; sá ógudlegi hefir ekkért skynbragd á þekkíngu. 8. Spottarar kveikja í borginni; en þeir vitru dempa reidina. 9. Þegar vitur madur fer í

mál vid dárann, hvørt sem hann reidist eda hlær, fær hann samt einga ró. 10. Þeir blódgírugu hata þann rádvanda; en þeir hreinskilnu verja (hans) líf. 11. Dárinn úthellir allri sinni heipt; en sá vísi stansar hana. 12. Þegar stjórnarinn géfur gaum lýginnar ordum, þá verda allir hans þénarar ógudlegir. 13. Sá fátæki og ofríkismadurinn mætast, Drottinn géfur beggja augum ljós. 14. Konúngur sá sem dæmir þá lítilmótlegu med réttvísi, hans hásæti skal stadfestast eiliflega. 15. Vøndur og agi géfa vísdóm, en sá únglíngur sem má eiga sig, gjørir skømm sinni módur. 16. Þegar ógudlegir fjølga, fjølga og yfirtrodslurnar; en þeir réttlátu sjá í þeirra falli, sína vild. 17. Aga þú son þinn, svo mun hann láta þig hafa ró, og géfa sál þinni mikin føgnud. 18. Þar sem engin opinberan er, þar tortínist fólkid; en sæll er sá sem løgin vardveitir! 19. Þrællinn verdur ei med ordum agadur, því þó hann skilji þau, svo tekur hann þau ekki til sín. 20. Sjáir þú ad einhvør madur sé fljótur til ad tala, svo er betri von um heimskíngjann, enn um hann. 21. Þegar einhvør uppelur sinn þræl frá barndómi vid sællísi, þá vill hann seinast vera (høfdíngja sonur). 22. Reidigjarn madur vekur þrætur, og brádlyndur madur hleypur opt á sig. 23. Mannsins drambsemi steypir honum, en sá lítiláti mun fá heidur. 24. Hvør sem hefir møk vid þjóf, hatar sína sál, hann heyrir eidsins þýdíngu (bølvunina) og uppljóstar ekki. 25. Otti fyrir mønnum leidir í snørur; en sá sem reidir sig á Drottinn, er verndadur. 26. Margir leita auglitis stjórnarans, en frá Drottni kémur mannsins dómur. 27. Ránglátur madur er réttlátum vidurstygd, og andstygd þeim ógudlega er sá, sem geingur á þeim rétta vegi.

## 30. Kapítuli.

Spakmæli Agurs.

2. Þessi eru ord Agurs Jakesonar, spakmæli ord mannsins vid Itíel, já, einmidt vid Itíel og Ukal.

2. Já! eg er heimskari enn nokkur madur, og hefi ekki manns vit. 3. Eg hefi ekki vitsku lært, og ekki numid þekkíngu á helgum hlutum. 4. Hvør fór upp til himins og nidur aptur? hvør tók vindinn í sína hnefa? hvør batt vatnid í dúk? hvør setti føst jardarinnar endimørk? hvad heitir hann? og hvad heitir hans sonur? veitstu þad? 5. Allt Guds ord er hreinsad, þad er skjøldur þeirra sem reida sig á hann. 6. Bættu eingu vid hans ord, ad hann ekki straffi þig, og þú reynist ósannordur. 7. Um tvennt bid eg þig, synja mér þess ekki, ádur enn eg dey! 8. Lát fals og lýgi vera lángt frá mér; géf mér hvørki fátækt né ríkdóm, en láttu mig hafa nægilegt uppheldi. 9. Eg kynni máské annars ad verda ofmatadur, afneita þér og segja: hvar er Drottinn? eda, ef eg yrdi snaudur, kynni eg ad stela og forgrípa mig á míns Guds nafni. 10. Ræg þú ekki þénarann vid sinn Herra, svo hann ekki bidji þér óbæna, og þú verdir sekur. 11. Til er þad kyn sem bølvar sínum fødur og blessar ekki sína módur; 12. kyn sem þykist hreint vera, og hefir þó ekki afþvegid sinn saur. 13. Kyn sem hátt lyptir augunum, hvørs augnalok eru uppspert. 14. Kyn, hvørs tønnur eru sverd, hvørs jaxlar eru hnífar til ad uppeta þá aumu í landinu, og þá fátæku medal manna. 15. Blódsugan á tvær dætur, sem heita: géfdu! géfdu! þrír eru ósedjanlegir; og hinn fjórdi segir aldrei: þad er nóg! 16. Grøfin, þad lokada módurlíf, og jørdin, sem aldrei sedst af vatni; og eldurinn, sem aldrei segir: þad er nóg!

17. Þad auga sem spottar sinn fødur, og forsmáir ad hlýda sinni módur, þad høggva út dalsins hrafnar, og arnarúngar eta þad. 18. Þessir þrír hlutir þykja mér undarlegir, og þann fjórda skil eg ekki: 19. Arnarinnar veg

um loptið, høggormsins veg um klettinn, skipsins veg miðt um hafið, og mannsins veg til meyarinnar. 20. Svo er hórkonunnar vegur, hún neytir, þurkar sér um munninn og segir: eg hefi ekki rángt gjørt. 21. Landið verður óróasamt af þremur hlutum, og hinn fjórða stendst það ekki, 22. það bifast, verði þénarinn stjórnari; ef dárinn mettast af brauði; 23. ef kona giftist aptur, sem maðurinn rak frá sér, og ef vinnukona, kémur í stað sinnar húsmóður. 24. Þessi fjøgur dýr eru af þeim litlu á jørðunni, þó eru þau hyggin og vel mentuð. 25. Maurinn er ekki sterkur lýður, þó aflar hann sér atvinnu á sumrum, 26. fjallmýsnar, ekki voldugur lýður, þó byggja þær sér hýbýli í klettum. 27. Grashoppurnar hafa engan konúng, þó fara þær allar út hópum saman. 28. Kóngulóin grípur til með høndunum, og er í Kónganna slotum. 29. Þrír hafa fríðan gáng, og sá fjórði geingur vel: 30. ljónið, hetjan meðal dýranna, það hopar fyrir eingum; 31. stríðshesturinn albúinn, geithafurinn, og Kóngur í flokki síns fólks. 32. Hafir þú breitt fávíslega af drambsemi, og hafir þú hugsað íllt, svo legg þú hønd þér á munn! 33. Sá sem mjólkina skékur, fær úr henni smjør, og sá sem slær sér á nefið, fær blóðnasir, og þegar reiðin æsist, verður þar af rimma.

## 31. Kapítuli.

Lærdómur fyrir Kónga. Hrós dygðugrar konu.

1. **Orð tøluð við Lemúel Kóng, greinir sem móðir hans kéndi honum.** 2. Hvað þá! minn son! hvað! míns lífs son! hvað! minn áheita son! (hvað skal eg segja þér). 3. Géf þú ekki konum þinn krapt, ekki heldur þína vegu þeim, sem Kóngunum spilla. 4. Kóngarnir eiga ekki, Lemúel! Kóngarnir eiga ekki að drekka vín. Stjórnendur eiga ekki heldur að elska sterka drykki, 5. svo að þeir ekki drekki og gleymi løgunum; og rángfæri málefni þeirra aumu. 6. Géf þeim sterkan drykk, sem er í krøggum og vín þeim sem eru sorgfullir í sinni, 7. hann drekkur og gleymir sinni fátækt, og man ekki framar til sinnar eymdar. 8. Tala þú fyrir hinn málláusa, fyrir málefni allra yfirgéfinna barna! 9. Opna þinn munn, dæm með réttvísi, hjálpa aumíngjanum og þeim fátæka til síns réttar! 10. Dygðuga konu, hvør finnur hana? hún er miklu meira verð enn perlur. 11. Hjarta hennar manns má henni treysta, og ávinníng (herfáng) mun hann ekki vanta. 12. Hún gjørir honum gott og aldrei vondt alla sína lífdaga. 13. Hún dregur að sér ull og hør, og vinnur gjarnan með sínum høndum. 14. Hún er lík kaupskipi; hún lætur sitt brauð koma lángt að. 15. Hún fer á fætur fyrir dag, géfur sínu húsi fæðslu, og sínum þernum vinnu. 16. Hún gyrnist akur og fær hann; af ávexti sínna handa plantar hún víngarð, 17. hún bindur krapti um sínar lendar og styrkir sína arma. 18. Hún tekur eptir, að sinn ávinníngur sé góður, hennar ljós slokknar ekki á nóttunni. 19. Hún réttir sínar hendur til rokksins, og hennar fíngur fara með snælduna. 20. Hún lykur upp sinni hendi fyrir þeim fátæka, útréttir sína arma þeim þurftuga. 21. Hún er ei hrædd um sitt hús þó snjói, því allt hennar heimilisfólk er íklædt tvennum klæðum. 22. Hún gjørir sér dúka; hvítt lín og purpuri er hennar klæðnaður. 23. Hennar maður er auðþekktur í borgarhliðinu, þegar hann situr hjá landsins øldúngum. 24. Hún tilbýr skirtur og selur þær og Kananítum (kaupmønnunum) belti. 25 Styrkleiki og heiður er hennar fatnaður; og hún hlær að þeim komanda degi. 26. Hún upplykur sínum munni með vísdómi og á hennar túngu eru blíðunnar lærdómar. 27. Hún litur eptir hvørnig framfer í hennar húsi, og etur ekki letinnar brauð.

28. Hennar synir koma upp og vegsama hana,
og hennar madur hrósar henni og segir: 29.
Margar dætur hafa sýnt dugnad, en þú yfir-
geingur þær allar. 30. Frídleiki tælir, og feg-
urd er hégómi; en þeirri konu sem óttast Gud,
skal verda hrósad. 31. Hrósid henni fyrir á-
vøxtinn hennar handa, hennar verk skulu lofa
hana í borgarhlidunum.

# Prédikarinn (Salómon).

## 1. Kapituli.

Hégómi heimsins. Ekkért nýtt undir sólunni. Pré-
dikarans raunir í vísdómsins eptirgrenslan.

1. Ord Prédikarans, Davidssonar,
Kóngs i Jerúsalem.
2. Mesti hégómi! segir Prédikarinn, mesti
hégómi! allt er hégómi. 3. Hvada ábata hef-
ir madurinn á allri sinni fyrirhøfn, hvar med
hann plágar sig undir sólunni? 4. Einn ætt-
leggur fer, annar kémur; en jørdin stendur eilíf-
lega. 5. Og sólin rennur upp og geingur nid-
ur, og hradar sér til síns bústadar, rennur þar
upp aptur. 6. Vindurinn geingur til sudurs,
og hleypur í kríng til nordurs, og til og frá, og
í sínum snúníngum hverfur vindurinn til baka.
7. Allar ár renna í sjóinn, og þó verdur sjór-
inn aldrei fullur; þángad sem árnar renna, þáng-
ad renna þær alltaf. 8. Allir þessir hlutir eru
þreytandi, einginn gétur þad útsagt. Augad
mettast ei af ad sjá, og eyrad fyllist aldrei af
ad heyra.
9. Hvad sem var, þad mun aptur verda,
hvad sem hefir skéd, þad mun ské aptur, svo
ad ekkért er nýtt undir sólunni. 10. Sumt er
til sem menn segja um: sjá, þad er nýtt! en
þad hefir þó verid til í gamla daga, ádur enn
vér vorum til. 11. Menn muna ei framar
til hins umlidna, ei heldur muna þeir, sem
seinast lifa, þad sem mun hér eptir ské.
12. Eg prédikarinn, eg var Kóngur yfir Ísra-
el í Jerúsalem. 13. Eg lagdi allan hug á
ad ransaka og med vísdómi ad grenslast eptir
øllu því sem skédur undir himninum. Þad
er þúng mæda sem Gud hefir géfid mannanna
børnum ad sýsla vid. 14. Eg sá øll þau verk
sem ské undir sólunni, og sjá! þad var allt hé-
gómi og skapraunir. 15. Þad bogna gétur
ei ordid beint; og gallarnir urdu ekki taldir.
16. Eg taladi í mínu hjarta og sagdi: sjá!
eg hefi vaxid og aukist ad vitsku fram yfir
alla þá sem á undan mér voru í Jerúsalem; og
mitt hjarta hefir sjed mikinn vísdóm og þekk-
íngu; 17. og þá eg lagdi hug á ad skilja
speki og vísindi, heimsku og vitleysu, vard eg var
vid, ad og svo þetta er skapraun. 18. Því
þar sem mikil vitska er, þar er og mikil gremja,
og sá sem eykur sína þekkíngu, sá eykur og
sínar raunir.

## 2. Kapituli.

Prédikarinn leitadi forgéfins sæln. Sá vísi er þó
betur farinn enn hinn fávísi. Ekkért betra enn
gledi í vorri þraut.

1. Eg sagdi í mínu hjarta: vel og gott!
eg vil og láta þig reyna gledina, njóttu unad-
semda; en sjá! og svo þetta var hégómi. 2.
Vid hláturinn sagdi eg: þú ert fávíslegur, og
vid gledina: hvad gjørir hún? 3. Eg hugs-
adi þá í mínu hjarta ad styrkja minn líkama

V. 2. Eiginl: hégóma hégómi!

med víni, medan mitt hjarta leitadi ad vís-
dómi, og ná í heimſkuna, þángad til eg gjæti ſjed
hvad beſt væri fyrir mannanna børn ad gjøra,
þá fáu daga medan þau lifa undir himninum.
4. Eg gjørdi ſtórvirki; eg bygdi mér hús, eg
plantadi mér víngarda. 5. Eg gjørdi mér
jurtagarda og aldingarda, og plantadi þar í alls-
háttar ávaxtar tré. 6. Eg tilbjó vatnsdýki,
til ad vøkva af þann vaxandi vidar ſkóg. 7.
Eg keypti mér þræla og þernur. Eg hafdi hjú
ſem voru heima fædd, líka átti eg meira af ſtór-
fénadi og ſmáfénadi, heldurenn allir þeir ſem á
undan mér høfdu verid í Jerúſalem. 8. Eg
ſafnadi mér og ſilfri og gulli og dírgripum frá
kóngum og løndum, eg útvegadi mér ſaungmenn
og ſaungkonur, og unadſemd mannanna barna,
unnuſtu, já, unnuſtur. 9. Eg vard mektugur,
og voldugri enn allir ſem á undan mér høfdu
verid í Jerúſalem, já, vísdómurinn ſtód mér til
hlidar, 10. og allt ſem mín augu gyrntuſt, lét
eg þau hafa, eg neitadi mínu hjarta um aung-
van føgnud; því mitt hjarta hafdi gledi í øllu
mínu erfidi, og þetta var mín hlutdeild fyrir
alla mína áreynſlu. 11. En þá eg ſkodadi
øll mín verk, ſem mínar høndur høfdu gjørt;
og þad erfidi ſem eg med mædu hafdi fullgjørt;
ſjá! þad var allt hégómi og ſkapraun og þad
vard mér einginn hagur undir ſólunni. 12.
Sídan ſnéri eg mér hédan til ad virda fyrir mér
vísdóm, og vitleyſu og heimſku, (því hvad mun
ſá madur gjøra ſem kémur eptir Kónginn
(mig)?) þad ſem hinir þegar hafa gjørt. 13.
Ad ſønnu ſá eg þá ad vísdómur hefir yfirburdi
yfir heimſku, eins og ljóſid yfir myrkur, 14.
ad ſá víſi hefir augu í høfdi, en ſá heimſki geing-
ur í myrkri; en eg tók líka eptir því, ad þad
ſem framkémur vid einn, þad kémur fram vid
þá alla. 15. Þá ſagdi eg í mínu hjarta: þad
ſem framkémur vid dárann, þad kémur og fram
vid mig; hvar fyrir var eg þá vitrari enn adr-
ir? og eg ſagdi í mínu hjarta: þvílíkt er líka
hégómi. 16. Því hins vitra endurminníng
verdur ekki eilíf, heldurenn þeſs heimſka; því allt
ſem nú er, þad ſkal gleymaſt á þeim komandi
døgum, hinn vitri deyr eins og ſá heimſki. 17.
Því vard mér illa vid lífid; af því mér ſýndiſt
þad allt ſem ſkédur undir ſólunni, íllt, því þad
er allt hégómi og ſkapraun. 18. Og eg hat-
adi allt þad ſtarf ſem eg hafdi haft undir ſól-
unni, ad eg ſkyldi eptirſkilja þad, þeim manni,
ſem kjæmi eptir mig. 19. Því hvør veit hvørt
hann verdur ſpekíngur eda dári, og þó ſkal hann
ráda yfir øllu mínu ſtarfi, ſem eg hefi þreytt
mig á, og viturlega gégnt undir ſólunni, þetta
er líka hégómi. 20. Þar fyrir ſnériſt mitt
hjarta til ángurværdar, vegna allrar þeirrar
mædu ſem eg hafdi á mig lagt undir ſólunni.
21. Því einnegin ſá madur, hvørs verk ad gjørt
er med vísdómi og þekkíngu og heppni, hann
verdur ad afhenda þad ødrum ſem arf, þeim
er ekkért hefir fyrirhaft. Þetta er líka hégómi
og mikil ógjæfa. 22. Því hvad hefir þá mad-
urinn fyrir allt ſitt erfidi og ſína hjartans raun,
hvar med hann mædir ſig, undir ſólunni. 23.
Allir hans dagar eru eintóm ſorg, armæda er
hans ſýſlan; jafnvel á nóttunni hefir hans
hjarta einga ró. Þetta er og hégómi.

24. Er þad þá ekki manninum betra ad hann
eti og drekki, og láti ſálu ſinni ſmakkaſt føgnud-
inn af ſínu ſtarfi? þetta ſá eg líka, ad þad kém-
ur af Guds hendi. 25. Því hvør gat etid,
og hvør gat notid audveldlegar enn eg? 26.
Því þeim manni ſem gódur er fyrir hans augliti,
géfur hann vísdóm og þekkíng og gledi; en ſynd-
aranum géfur hann þá mædu, ad ſafna og upp-
hrúga, til ad afhenda þeim ſem er gódur fyrir
Guds augliti. Ogſvo þetta er hégómi og ſkap-
raun.

## 3. Kapítuli.

Allt hefir ſinn tíma. Beſt er ad njóta lífſins gjæda

med þakklæti vid gjafarann. Umkvørtun yfir lífsins armædu.

1. Allt hefir sinn ákvardada tíma, og stund er til alls áforms undir himninum. 2. Tími er til ad fædast, ag tími til ad deya, tími til ad planta, og tími til upp ad ræta, þad sem plantad var, 3. tími er til ad særa og tími til ad græda; tími til ad nidurbrjóta og tími til ad uppbyggja, 4. tími til ad gráta og tími til ad hlæa, tími til ad veina og tími til ad hoppa upp af gledi, 5. tími til ad sundurdreifa steinum, og tími til ad safna steinum, tími til ad fadmast, og tími til ad halda sér frá fadmløgum, 6. tími til ad leita og tími til ad tína, tími til ad geyma og tími til ad burtkasta, 7. tími til ad sundurrífa og tími til ad sauma saman, tími til ad þegja og tími til ad tala, 8. tími til ad elska og tími til ad hata, tími til stríds og tími til fridar. 9. Hvørn hag hefir sá sem á sig reynir af øllum sínum vidburdum? 10. Eg hefi sjed þá mædu, sem Gud hefir ætlad mannanna børnum ad mæda sig med. 11. Hann gjørdi alla hluti vel á sínum tíma; hann lagdi líka ókomnar aldir í þeirra hjørtu, þóad madurinn ekki géti þekkt þad verk, sem Gud hefir gjørt, frá byrjuninni til endans. 12. Eg kannadist vid ad ekkért væri betra fyrir manninn enn ad hann sé gladur og gjøri sér til góda í lífinu, 13. þó svo, ad sérhvør madur sem etur og drekkur, og nýtur hins góda af øllu sínu erfidi, vidurkéuni ad þad sé Guds gjøf. 14. Eg kannadist vid ad allt þad sem Gud gjørir varir eilíflega; ad menn géta eingu vidbætt, og ekkért tekid frá, og ad Gud gjørir þad svo, til þess ad menn óttist fyrir hans augliti. 15. Þad sem skédur, hefir ádur skéd, og þad sem á ad ské, hefir ádur skéd, og Gud leitar aptur þess sem burt var hrakid.

16. Eg sá enn framar undir sólunni dómsins stad, þar var ógudlegleiki; og réttlætisins stad, þar var gudleysi. 17. Þá sagdi eg í mínu hjarta: þann réttláta og ógudlega mun Gud dæma; því tími er til hvørs áforms og hann dæmir sérhvørt verk. 18. Eg sagdi í mínu hjarta: sakir mannanna barna, (skédur þad), til þess ad Gud prófi þau, og sjái, ad þau eru sem fénadurinn. 19. Því þad sem framkémur vid mannanna børn, þad kémur og fram vid fénadinn, hvørtveggja hefir sømu forløg, eins og fénadurinn deyr, svo deyr og madurinn, og allt hefir eins anda; og madurinn hefir einga yfirburdi yfir fénadinn. Því þad er allt hégómi. 20. Þad fer allt til sama stadar, þad er alltsaman af dupti, og verdur allt ad dupti aptur. 21. Hvør veit, hvørt andi mannsins barna fer í hædirnar, og fénadarins andi nidur á vid í jørdina? 22. Því sá eg, ad ekkért er manninum betra enn ad hann gledji sig vid sín verk, þad er hans hlutdeild; því hvør flytur hann þángad, hvadan hann sjái þad, sem skédur eptir hans andlát?

## 4. Kapítuli.

Undirokun med ymsu móti eykur lífsins anmarka. Vísdómsins hrós.

1. Og í annann stad sá eg alla þá undirokun, sem vidgeingst (skédur) undir sólunni; og sjá! þar var grátur þeirra undirþrykktu, og einginn huggadi þá; og ofbeldi af hendi þeirra sem undirþrykktu þá, og einginn sem huggadi þá. 2. Þá kalladi eg þá sæla sem fyrir laungu voru daudir, framar enn þá lifandi, sem enn voru á lífi. 3. En sælli heldur enn þessir hvørutveggju er sá, sem enn er ei til ordinn, sem ekki hefir sjed þau vondu verk sem vidgángast undir sólunni. 4. Framveigis skodadi eg allt erfidi og alla áreynslu vid því sem gjørt er; ad sá eini madur øfundar hinn annann, þetta er og svo hégómi og skapraun. 5. Dárinn leggur hendur í skaut, og

etur sitt egid hold, (plágar sjálfann sig). 6.
Einn handfyllir med ró er betri enn bádar
hөndur fullar, med mædu og skapraun. 7.
Og aptur sá eg hégóma undir sólunni. 8. Þar
var madur einsamall, og ekki annar med, hann
átti hvørki son né bródur, og þó er einginn
endi á hans erfidi. og hans augu mettast ald=
rei af audlegd, og (þó segir, hann ekki) fyrir
hvørn erfida eg og synja minni sálu um þad
góda? þetta er og svo hégómi og leid ar=
mæda. 9. Betri tveir enn einn, þeir hafa gód
laun fyrir sitt erfidi. 10. Falli annar þeirra,
gétur hinn reist á fætur sinn stallbródur; sá er
illa farinn sem er einn; ef hann dettur, þá er
einginn annar til ad reisa hann á fætur. 11.
Enn fremur þegar tveir sofa saman, þá hafa
þeir hita, en sá sem er einn, hvørnig gétur
honum hitnad? 12. Og gjøri einhvør árás,
þá géta tveir veitt mótstødu; þrefaldur þrádur slitn=
ar ekki audveldlega. 13. Betri er fátækur
únglingur, sem er hygginn, heldur enn konúng=
ur, enn þótt gamall, sem er dári og jafnvel
veit ekki ad þiggja rád; 14. því hann gékk út
af fángelsi til ad ríkja, já, í sínu Kóngs ríki
var hann fæddur fátækur. 15. Og eg sá alla
þá sem lifdu, sem geingu undir sólunni, med
þeim únga, sem koma átti í hins stad. 16.
Og þá var einginn endir á því fólki, á øllum
þeim sem voru á undan, ekki heldur á þeim
sem komu á eptir, og høfdu samt ei af því
føgnud. Vissulega er þetta og svo hégómi og
skapraun.

## 5. Kapítuli.

*Hégómi í Gudsdýrkuninni. Í mogli. Í audlegd. Guds gjøf ad njóta audsins med gledi.*

1. Vakta þinn fót þegar þú geingur í
Drottins hús, og far þángad heldur til ad heyra,
enn til ad fórnfæra, einsog heimskíngjar; því
þeir géfa ekki um þad, þó þeir adhafist íllt.
2. Vertu ekki skjótordur og þitt hjarta hlaupi
ekki á sig ad tala ord fyrir Guds augliti; því
Gud er á himnum, en þú á jørdu; af því
skulu ord þín vera fá. 3. Því draumar koma
af miklum raunum, og heimskíngjans raust
þekkist af orda fjølda. 4. Þegar þú gjørir
Gudi heit, svo frestadu ekki ad efna þad, því
hann hefir ekki velþóknun á dárum; þad sem
þú lofar, þad haldtu. 5. Betra er þú lofir
eingu, enn ad þú lofir og haldir þad ekki. 6.
Leyf ekki þínum munni ad hann láti þitt hold
(þig) syndga, og seg ekki í eingilsins (prestsins)
áheyrn: þad var yfirsjón! Hví skyldi Gud
reidast þinni raust, og fordæma verk þinna handa?
7. Því einsog þar er mikill hégómaskapur, þar
sem margir draumar eru, eins er því varid
med þau mørgu ord. En óttastu Gud! 8.
Sjáir þú þann fátæka undirþryktann, og ad rétti
og réttvísi er rænt úr landinu, þá furda þú þig
ekki á því athæfi, því yfir háum vakir hár,
og sá hærsti yfir þeim. 9. Í allanu máta er
landinu hagur ad þeim Kóngi sem landid heidr=
ar. 10. Hvør sem elskar peninga, verdur ald=
rei mettur af peníngum, og hvør sem elskar
audæfi, hefir ekki gagn af því. Þetta er líka
hégómi. 11. Þar sem audur safnast, þar
safnast margur til ad eyda honum; og hvørt
gagn er þad fyrir þann sem á, nema ad hans
augu horfa þar á. 12. Þeim sem erfidar, er
svefninn sætur, hvørt sem hann etur lítid eda
mikid; en mettun hins ríka, leyfir honum eigi
ad sofa. 13. Þad er ólukka, þad er sjúkdóm=
ur, sem eg sá undir sólunni, ad audurinn geym=
ist af eigandanum, til hans eigin ólukku. 14.
Því missist þessi audur af óheppni, og hafi
hann eignast son, verdur ekkért í hans hendi.
15. Einsog hann kom af módurlífi, svo skal
hann nakinn burt aptur fara, fara einsog hann
kom, og af því sem hann abladi med sínu erf=
idi, mun hann ekkért taka med sér í sína hønd.
16. Sannarlega er og svo þetta ólukka og sjúk=

leiki, ad hann skal í allann máta fara sem hann kom; hvørt gagn hefir hann þá af því, ad hann hefir erfidad (unnid) fyrir gýg? 17. og ad hann alla sína daga át í myrkri, og hafdi marga raun og sjúkdóm og armædu. 18. Sjá! svo hefur mér litist: gott, já, ágjætt er þad, þegar madurinn etur og drekkur og nýtur gledi í øllu sínu erfidi, sem hann hefir undir sólunni, á þeirri litlu lífdaga tølu, sem Gud géfur honum, því þad er hans hlutdeild. 19. Og hvør sá madur, sem Gud géfur aud og góts og efni, og leyfir ad njóta þess, ad taka sína hlutdeild þar af, og ad gledjast í sínu erfidi, (vidurkénni) ad þetta sé Guds gáfa. 20. Því hann mun ekki mikid hugsa til sinna lífdaga, medan Gud lætur hann hafa nóg ad sýsla vid føgnud síns hjarta.

## 6. Kapítuli.

Ýmisleg sannmæli.

1. Þad er ein ólukkan sem eg sá undir sólunni, og hún er mikil medal mannanna. 2. Þar er einn, hvørjum Gud géfur aud, góts og heidur, svo hann vantar ekkért af því sem hans hjarta girnist, og Gud géfur honum þó ekki vald (skap) til ad eta þar af; þarámót skal annar njóta þess. Þetta er og hégómi og vond plága. 3. Þótt madur ætti hundrad børn, og lifdi mørg ár, svo ad dagar hans ára yrdu margir, en sál hans mettadist þó ekki af hans góts, og feingi ei heldur greftrun, þá mundi eg segja: ótímaburdur er sælli enn hann, 4. því ad sønnu kémur hann med hégóma, og fer burt í mirkrid, og hans nafn verdur í mirkri falid, 5. sjer ei heldur sólina, verdur ei vid hana var, en samt hefir hann meiri ró enn hinn (sá ríki). 6. Og þó hann lifdi tvø þúsund ár og nyti ei sinna gjæda, lendir þad ekki í sama stad? 7. Allt mannsins erfidi er fyrir mannsins munn, en sálin mettast þó ekki. 8. Því hvad hefir sá vísi framyfir dárann? hvad hefir sá snaudi a), ad hann veit ad gánga medal þeirra sem lifa? 9. Betra er þad sem madur sjer fyrir augum sínum, heldur enn þad sem sálin girnist. Líka b) þetta er hégómi og skapraun.

10. Þad sem er, fyrir laungu var þess nafn nefnt, og þad er vitanlegt, ad hann er madur; og hann gétur ekki deilt vid þann sem er voldugri enn hann. 11. Þad eykur hégómann, ad tala hér margt um; hvad er madurinn ad bættari? 12. Því hvør veit hvad gott er fyrir manninn á døgum þessa fánýta lífs, sem honum hverfur einsog skuggi? hvør gétur sagt manninum, hvad eptir hann skal ské undir sólunni?

## 7. Kapítuli.

Ráð vid hégóma þessum er gott mannord. Sjálfsafneitun. Þolinmædi. Vísdómur, sem torveldt er ad sá.

1. Gott mannord er betra enn gott salve, og daudadagurinn betri enn fædíngardagurinn. 2. Þad er betra ad gánga í sorgarhúsid enn í veitslu húsid; því í hinu er allra manna endalikt; og sá sem lifir, leggur þad uppá hjartad. 3. Hrygd er betri enn hlátur, því dapurt andlit gétur betrad hjartad. 4. Hugur hinna vísu er í sorgarhúsinu, enn dáranna hjarta er í gledihúsinu. 5. Þad er betra ad heyra átølur hinna hyggnu, heldurenn loffsaung dáranna, 6. því hlátur hinna heimsku er einsog þá snarkar í þyrnum undir pottinum; þetta er líka hégómi. 7. Því undirþrykkíng gétur sannarlega gjørt hygginn mann galinn, og hjartad gétur spillst af gáfum.

V. 8. *a.* Sá snaudi hefir nefnilega orsøk til ad farga sér? V. 9. *b.* ad gyrnast þad sem ei fæst. V. 11. adr: Þad er margt sem eykur hégómann. Hvørja yfirburdi hefir madurinn?

8. Endir hvørs hlutar er betri enn upphafid, og lánglundargéd, er betra enn metnadur. 9. Ver þú ekki fljótur í sinni til ad reidast, því reidigyrni hvílist í hjarta dáranna. 10. Seg þú ekki: hvar af kémur þad, ad þeir fyrri dagar voru betri enn þessir? því þesshátttar spurníng er ekki skynsamleg. 11. Vitsmunir eru eins gódir og audur, ávinníngur fyrir þá sem sjá sólina, 12. því einsog vitskan er verja, svo eru og audæfin, en þekkíngin hefir þó yfirburdi; og vitskan géfur lífid þeim hana hefir.

13. Skoda þú Guds verk! hvør gétur gjørt þad beint sem hann hefir gjørt bogid. 14. Vertu gladur á þeim gódu døgum, og á þeim vonda degi, þá yfirvega þú þetta: Gud hefir gjørt þennann sem hina, til þess madurinn viti ekki hvad eptir á kémur. 15. Allt þetta hefi eg sjed á mínum hégóma døgum. Þar er einn réttlátur sem fyrirferst í sínu réttlæti, og þar er einn ógudlegur sem lifir leingi í sínu gudleisi. 16. Vertu ekki allt of réttlátur, og gjør þig ekki sjálfan ofvitrann; hvarfyrir viltu eydileggja sjálfann þig? 17. En vertu ekki heldur alltof ógudlegur og vertu einginn dári. Hvarfyrir viltu deya ádurenn þinn tími er kominn? 18. Þad er gott ad þú sért fastheldinn á því eina; en þú skalt ei heldur sleppa hinu ødru þér úr hendi, því sá sem óttast Gud, hann kémst hjá því øllu. 19. Vísdómur styrkir þann vísa, meir enn tíu voldugir í borginni. 20. Þó er ekki einn madur réttlátur á jørdunni, sem gjøri gott og syndgi ekki. 21. Legdu ekki uppá hjartad øll þau ord sem tølud eru, svo þú heyrir ekki þinn þénara formæla þér. 22. Því þitt hjarta man, ad þú hefir og ødrum formælt. 23. Allt þetta hefi eg prófad med vitskunni. Eg sagdi: nú hefi eg vísdóminn, en hann vék lángt frá mér. 24. Fjærlægt er þad sem hefir verid og (þad er) djúpt (fálid), hvør gétur fundid þad? 25. Eg snéri mínu hjarta til ad skilja, ransaka, og grenslast eptir vísdómi og skynsemi, dáraskap, heimsku og vitleysu. 26. Þá fann eg einn hlut beiskari enn daudann, konu, hvørrar hjarta var sem veidimanna net og snara, og hvørrar hendur voru sem fjøtrar. Sá sem er gódur fyrir Guds augsýn, skal sleppa hjá henni, en syndarinn verdur af henni hertekinn (fángadur). 27. Sjá! þetta hefi eg fundid, segir prédikarinn, eitt eptir annad, svo eg gjæti fundid skynsemd. 28. Mín sál leitar enn, og eg hefi ekki fundid hana, einn mann hefi eg fundid medal þúsund manna; en eina konu fann eg ekki medal þeirra allra. 29. Sjá! einasta þetta, þetta hefi eg fundid, Gud gjørdi manninn beinann, en þeir leita margra króka.

## 8. Kapituli.

Ad heidra Kónginn. Taka eptir forsjónarinnar vegum. Betra ad vera med gódum í mótgángi enn vondum í lukku. Guds verk óransakanleg.

1. Hvør er sem sá vitri, og hvør skilur hlutanna þýdíngu? Manusins vísdómur upplýsir (hírgar) hans andlit, og hans andlitis frekja umbreytist. 2. Eg segi þér: géf þú gaum Kóngsins bodi, einkum vegna eidsins fyrir Gudi. 3. Vertu ei fljótur ad gánga frá hans augsýn, nem þú ekki stadar vid íllt fyrirtæki, því hann má gjøra allt hvad hann vill. 4. Þar sem Kóngsins ord er, þar er makt, og hvør þorir ad segja vid hann, hvad gjørir þú? 5. Hvør sem bodordid heldur, hann skal ei var verda vid nokkud íllt, hyggins manns hjarta þekkir bædi tímann og adferdina. 6. Því hvørt fyrirtæki hefir sinn tíma og sína adferd; en manninn hittir mørg ólukka. 7. Því einginn veit hvad ské skal, því hvør gétur sagt honum, hvørnig þad skuli vera.

8. Einginn madur hefir vald yfir andardrætt-

inum, svo ad hann géti andarbrættinum hjá sér haldid; og einginn hefir vald yfir daudans degi; og einginn fær sig lausann úr bardaganum; og gudleysid bjargar ekki sínum. 9. Allt þetta hefi eg sjed, þegar eg snéri mínu hjarta ad øllu því sem gjørist undir sólunni; þeir tímar géfast, ad einn ríkir yfir ødrum, þeim til ógjæfu. 10. Þannig hefi eg sjed ógudlega menn jardada; og þar komu og urdu burt ad fara frá þeim heilaga stad, og gleymdust í borginni, þeir sem høfdu breytt rádvandlega; líka er þetta hégómi. 11. Af því ad dómi yfir vondum verkum er ekki strax fullnægt, af því fyllast hjørtu mannanna barna med lyst til ad adhafast íllt. 12. Þóad syndarinn adhafist íllt hundradsinnum og lifi leingi, veit eg samt ad þeim mun vel vegna sem óttast Gud og hafa lotníngu fyrir hans augliti. 13. En þeim ógudlega skal ekki vel vegna og leingi skal hann ekki lifa. Einsog skuggi burt lída lífdagar þess, sem ei hefir lotníngu fyrir Guds augliti.

14. Þad er einn hégóminn sem sjest á jørdunni: þar eru réttlátir, sem vegnar eptir verkum ógudlegra; og þar eru ógudlegir, sem vegnar eptir verkum réttlátra. Eg sagdi: þad er líka hégómi. 15. Þar fyrir prísadi eg gledina, því madurinn hefir ekkért betra undir sólunni, enn ad eta og drekka og vera gladur. Því þetta skal hann hafa fyrir sitt erfidi, daga síns lífs, sem Gud hefir géfid honum undir sólunni.

16. Þegar eg lagdi allann hug á ad grennslast eptir vísdómi, og sjá þá hluti sem ské á jørdunni, (því sá er til sem hvørki dag né nótt sjer svefn í sínum augum). 17. Þá sá eg allt Guds verk, og (sá) ad menn géta ekki útgrundad þad verk sem skédur undir sólunni, þessvegna þó menn gjøri sér annt um ad útgrunda, géta þeir ekki skilid þad. Þóad sá vísi hugsadi sér ad þekkja þad, gétur hann samt ekki skilid þad.

## 9. Kapítuli.

*Líkt mætir vondum og gódum. Allir hljóta ad deya. Sællífi. Guds forsjón rædur øllu. Vitska betri enn kraptur.*

1. Allt þetta hefi eg lagt uppá hjartad og eg grennsladist eptir því øllu saman; þeir réttlátu og vísu og þeirra verk eru í Guds hendi. Um elsku eda hatur veit einginn madur, allt liggur framundan þeirra augsýn. 2. Allt mætir øllum; þad sem til vill, er hid sama fyrir hinn réttláta og þann ógudlega, fyrir þann góda, þann hreina og óhreina, fyrir þann sem fórnfærir og þann sem ekki fórnfærir; eins og gódum geingur, svo syndugum, þeim sem sver (gálauslega) eins og þeim sem óttast eidinn. 3. Þetta er þad vesta, vidvíkjandi øllu því sem skédur undir sólunni, ad øllum mætir sama; og ad hjørtu mannanna barna eru full af vondsku, og ad heimska er í þeirra hjørtum, svo lengi sem þau lifa, og eptir þad fara þau til hinna daudu. 4. Því hvør verdur undantekinn? fyrir alla sem lifa er þó von; því lifandi hundur er betri enn daudt ljón. 5. Þeir sem lifa, vita þó ad þeir eiga ad deya; en þeir daudu vita ekkért, og þeir eiga eingin laun framar, heldur er þeirra endurminníng gleymd. 6. Bædi þeirra elska og hatur og øfund er allt farid; og þeir hafa einga hlutdeild meir í heiminum, í øllu því sem skédur undir sólunni.

7. Svo far þú og et þitt braud med gledi og drekk þitt vín med gódu gédi, því Gud hefir velþóknan á þínum verkum. 8. Láttu þín klædi ætíd vera hvít, og láttu ekki þitt høfud vanta salve. 9. Njóttu lífsins med konu sem þú elskar, alla daga þessa fánýta lífs, sem þér géfast undir sólunni, alla daga þíns fánýta lífs! Þad er þín hlutdeild í lífinu, medan þú erfidar undir sólunni. 10. Allt hvad þín hønd finnur ad gjøra, þá gjør þad med krapti, því hvørki er starf né konst né þekkíng né vísdóm-

ur í grøfinni, hvar þú lendir. 11. Eg snéri mér enn einusinni, og sá hvørnig tilgeingur undir sólunni. Skeidid er ekki í valdi þess fljóta, og bardaginn ekki í valdi hinna sterku; ei heldur braudid í valdi hinna vísu, né audur í hendi þeirra framsýnu, eda vinsæld reidubúin þeim fródu. Allt þetta er komid undir tíma og tilviljun. 12. Því jafnvel madurinn þekkir ekki sinn tíma, heldur einsog fiskarnir festast í því háskalega neti, og eins og fuglinn verdur fángadur í snørum, svo flækjast mannanna børn í þeirri vondu tíd, þegar hún kémur snøgglega yfir þau.

13. Líka hefi eg sjed þessar vísdóms menjar undir sólunni, og mér sýndust þær miklar. 14. Þar var lítil borg og fáir menn í henni; og þar kom voldugur Kóngur svipl ega ad henni, settist um hana, og bygdi mikid hervirki í kríngum hana; 15. og þar fannst í henni fátækur, en hygginn madur, og hann bjargadi borginni med sínum vísdómi, en einginn madur mundi til þessa fátæka manns. 16. Þá sagdi eg: vitskan er betri enn krapturinn. Samt var vísdómur hins fátæka manns fyrirlitinn, og hans ordum var ei gégnt. 17. Þó heyrast ord hinna vísu af þeim hógværu betur, heldurenn drottnarans hróp medal dára. 18. Betri er vísdómur heldurenn vopn; en syndarinn spillir mørgu gódu.

## 10. Kapítuli.

Um vísdóm og heimsku. Svall. Leti. Peníngar. Lotníng fyrir Kónginum.

1. Einsog daudar flugur med sínum þef skémma Apótekarans salve, svoleidis gétur lítid heimskupar ordid þýngra enn vísdómur og heidur. 2. Hyggins manns hjarta er honum til hægri handar; en dárans hjarta er honum vid vinstri hlid. 3. Hvørja leid sem dárinn fer, vantar hann vit, og uppljóstar því vid hvørn mann, ad hann sé dári. 4. Þó drottnarans sinni æsist gégn þér, þá vík ekki úr þínum sporum, því þolgjædi er medal til ad hindra stór syndir. 5. Þad er ein ólukka sem eg sá undir sólunni, þad er sú villa sem kémur frá þeim voldugu; 6. þegar dári er settur í háa tign, og þeir álitlegu menn sitja lágt. 7. Eg sá þénara rídandi, og fursta fótgángandi sem þénara. 8. Hvør sem grefur grøf, mun sjálfur í hana falla, og hvør sem gyrdíngu nidurrífur mun af høggormi bitinn verda. 9. Hvør sem burtflytur steina, gétur meidt sig á þeim; sá sem klífur vid, gétur af því komist í hættu. 10. Þegar øxin verdur sljóf og eggin er ekki brínd, svo verda menn því meir ad neyta orku. Hagrædi heppninnar er hyggindi. 11. Efad høggormurinn bítur án særínga, þá er særíngamadurinn án gagns. 12. Ord af vitrum munni eru yndi; en varir hins fávísa skémma hann sjálfann. 13. Byrjun orda hans munns eru dáraskapur, og endirinn heimska og vitleysa. 14. Dárinn talar ad sønnu mørg ord; þó veit einginn hvad ské skal, því hvør gétur kunngjørt honum þad, sem mun ské eptir hann. 15. Erfidi heimskíngjans ørþreitir hann; því hann veit ei ad gánga í borgina (til ad leita sér endurhressíngar). 16. Vei þér land! hvørs Kóngur er barn, og hvørs furstar setjast ad veitslu snemma dags. 17. Heppid ertú land! hvørs Kóngur er fæddur af þeim ypparstu, og hvørs høfdíngjar eta á réttum tíma, til ad styrkja sig, en ei sakir ofneytslu. 18. Fyrir letisakir nidursíga bjálkarnir, og vegna hyrdulausra handa lekur húsid. 19. Til ad hlæa, halda menn veitslur, og vínid gledur þá, sem lifa, og gullid (peníngar) veitir allt. 20. Formæl þú ekki Kónginum, jafnvel ei í huga þínum; og formæl þú ei þeim ríka, jafnvel ei í þínu innsta svefnherbergi, því fugl undir himninum gétur borid þína raust, og sá vængjadi kunngjørt þitt ord.

## 11. Kapítuli.

Gjafmildi. Dandi í lífi. Dómsdagur.

1. Láttu þitt braud fara yfir hafid, því þú munt finna þad aptur eptir marga daga. 2. Legdu þó affsídis nokkud, sjøunda eda áttunda partinn; því þú gétur ekki vitad, hvør ógjæfa kann ad koma yfir landid. 3. Þegar skýin eru full, géfa þau regn yfir jørdina, og þegar vidareik dettur, hvørt sem þad er til sudurs eda nordurs, í hvørja átt sem hún dettur, þar liggur hún. 4. Sá sem gáir ad vedrinu, sáir ekki; og hvør sem gáir ad skýunum, uppskér ekki. 5. Einsog þú veitst ekki vindsins veg, eda hvørnig beinin (miudast) í módurlífi, svo gétur þú ei þekkt Guds verk, hans sem gjørir alltsaman. 6. Sádu sædi þínu snemma, og lát ei hønd þína heldur hvílast á kvøldin, því þú veitst ei hvørt þetta edur hitt verdur þad rétta, en þegar hvørtveggja sameinast, þá mun þad vel fara. 7. Yndælt er ljósid, og augunum er unadsemd ad sjá sólina. 8. Þóad madurinn lifi mørg ár, veri hann samt gladur øll þessi ár; og muni til þeirra dymmu daga, ad þeir muni verda margir; allt þad sem ókomid er, þad er hégómi. 9. Gled þig þá, úngi madur! í þinni æsku og lát þitt hjarta vera hresst á døgum þinnar æsku, gakk þú á vegum þíns hjarta, og eptir sjón þinna augna; en vita skaltu samt ad Gud mun kalla þig til dóms fyrir allt þetta. 10. Svo rek þá sorgina frá þínu hjarta og verkina frá þínu holdi! því æska og morgunrodi er líka hégómi.

## 12. Kapítuli.

Mundu til Guds í tíma. Hrós þessarar bókar. Guds ótti burttekur hégómann.

1. Hugsadu því til Skaparans á þínum æsku døgum, fyrr enn þeir vondu dagar koma, og árin nálgast, um hvør þú munt segja: mér líka þau ekki; 2. ádurenn sólin og hennar ljós og túnglid og stjørnurnar verda dymmar, og skýin koma aptur eptir regnid. 3. Á þeim degi þá vaktararnir í húsinu skjálfa, og þeir sterku verda bognir, og kvarnar stúlkurnar hætta ad mala, því þær eru ordnar fáar, og dymt er hjá þeim sem líta út um gluggana. 4. Þá bádar hurdir strætisins lokast, og raust kvarnarinnar verdur lág, og menn fara á fætur þegar fuglinn sýngur, en allar dætur saungsins eru lágrómadar. 5. Þá menn líka eru hræddir vid allar hædir og skélfíngarnar á veginum, þegar mandeltréd blómstrar (í December), og grashoppurnar verda ad byrdi, og lystíngin deyr. Þá fer madurinn til þess hússins hvar hann verdur eilíflega, og þeir sem hann gráta gánga um strætin. 6. Fyrr enn skorid verdur á silfur snúruna og gull lampinn molast, og krukkan brotnar vid uppsprettuna, og hjólid fer sundur vid brunninn *). 7. Þá duptid hverfur til jardarinnar aptur hvar þad ádur var, og andinn fer til Guds sem gaf hann.

8. Þad er eintómur hégómi, sagdi prédikarinn, allt er hégómi. 9. En auk þess prédikarinn var spekíngur, midladi hann fólkinu þekkíngu; hann ransakadi, grensladist eptir,

V. 3—6. *) Frá versinu 3dja til 5ta er verid ad lýsa, í líkingu, ellinnar aunmørkum. Vaktarar: þad eru hendur og fætur, þeir sterku: fæturnir. Kvarnarstúlkurnar: tennurnar. Þær sem líta út um gluggann: sjónin. Hurdir strætisins: varirnar. Raust kvarnarinnar: málrómurinn. Hann fer á fætur: sá gamli gétur ekki sofid. Dætur saungsins: saungtólin; fyrr enn, í upphafi 6ta versins, er ítrekun þess sem stód í 1ta versi, fyrr enn þeir vondu dagar koma — hugsadu til Skaparans fyrr enn lampi lífsins hángir í gullsnúru, á hann er ausid med krukku og hjól brúkad til ad hefja hana.

og samsetti mørg spakmæli. 10. Prédikarinn leitadi eptir ad finna þægileg ord, og þad sem er skrifad, þad er rétt og sannleikans ord. 11. Ord spekíngsins eru sem broddar og eins og naglar, reknir af safnadanna forstødumønnum, meddeildir af hyrdirnum; 12. af þeim muntu, minn son! vera ánægjanlega áminntur. Margar bækur mætti gjøra, og samt kjæmust menn ei ad endirnum; mikill lestur ørmagnar líkamann.

13. Høfud summa efnisins, þegar allt er athugad, verdur þetta, óttastu Gud og haldtu hans bodord, því þad á hvør madur ad gjøra. 14. Því Gud mun leida alla hluti fyrir dóminn, yfir øllu sem er hulid, hvørt sem þad er gott eda illt.

# Ljóda ljód

eda

# Lofkvædi.

## 1. Kapituli.

*Laungun til unnustans.*

1. **Lofkvædi af Salómon.** 2. Hann kyssi mig med kossi síns munns! því dírmætari eru þín blídu atlot, heldurenn vín. 3. Ilmurinn gjørir þín smirsli elskuleg; úthellt vidsmjør er þitt nafn: því elska meyarnar þig. 4. Tak þú mig med þér, þig viljum vér ellta sem skjótast! Konúngurinn leiddi mig a) í sitt herbergi: vér viljum hafa fagnadarlæti og gledjast af þér, viljum vegsama þína elsku meir enn vín; rádvandir elska þig b). 5. Svørt er eg, samt lystileg, Jerúsalems dætur, einsog Kedars tjaldbúdir, einsog Salómons tjalddúkar; 6. takid ekki til þess, ad eg er svo svørt, ad sólin hefir svo brennt mig! Synir módur minnar c) reiddust mér, létu mig vakta víngard; minn víngard, eiginn (víngard) vaktadi eg ekki. 7. Seg þú mér, þú, sem mín sál elskar, hvar heldur þú á beit (þinni hjørd), hvar hvílist þú um middegid? svo ad eg ekki, ørþreitt, ráfi um kríng hjá hjørdum þinna stallbrædra.

8. „Ef þú veitst þad ekki, þú frídasta af konum, svo fardu eptir sporum hjardarinnar, og haldtu til haga þínum kidum hjá búſtødum hirdaranna!" 9. Eg líki þér, mín vinkona! vid hrossin fyrir Faraós vagni! 10. Lystilegar eru þínar kinnar undir perlusnúrunum, þinn háls undir edalsteina (kórhalla) kédjunum. 11. Gullsnúru viljum vér gjøra þér, setta silfur hnøppum.

12. „Medan Kóngurinn situr vid sitt bord, géfur mín nardus olía sinn ilm. Minn vinur er mér myrrubindini, milli minna brjósta hvílir hann. 14. Minn vinur er mér kofer-vínberjagrein, úr víngørdunum í Engeddi."

15. Sjá! fríd ert þú, mín vinkona! sjá! fríd ert þú! þín augu eru dúfur. 16. „Sjá! frídur ert þú, minn vinur! já, lystilegur, og vor sæng er græn. 17. Bitarnir í voru húsi

V. 4. *a.* Adr: þó Kóngurinn leiddi etc. *b.* Adr: einlæglega elska þær þig. V. 6. *c.* Máské hálfbrædur.

eru Sedrustré og hvelfíng vor furutré. 2. Kap. 1. Eg er Sarons blómstur, lilja í dalnum."

## 2. Kapítuli.

Elskuginn finnur sína unnustu í víngardinum.

2. Einsog lilja medal þyrna, svo er mín vinkona, medal dætranna. 3. „Einsog apaldur (eplatré) medal trjánna, svo er minn vinur medal sonanna. Í hans skugga lángar mig til ad sitja, og hans ávørtur er sætur mínum góm. 4. Hann leiddi mig í vínhúsid, og hans merki yfir mér er elskan. 5. Endurnærid mig med rúsínukøkum, hressid mig med eplum! því eg er veik af elsku. 6. Hans vinstri (sé) undir mínu høfdi, og hans hægri umfadmi mig." 7. Eg særi ydur, Jerúsalems dætur! vid rádýrin og hindurnar á mørkinni: vekid ekki, vekid ekki mína unnustu, fyrr enn henni þóknast!

8. Þetta er raust míns vinar! sjá! hann kémur hlaupandi yfir fjøllin, støkkvandi yfir hædirnar. 9. Minn vinur er líkur rádýri, eda hindar kálfi. Sjá! hann stendur vid vorn vegg, horfir inn um gluggann, gjægist í gégnum grindurnar. 10. Minn vinur tekur til orda, og segir vid mig: „upp mín unnusta! mín frída og kom! 11. Því sjá! veturinn er lidinn, regnid er úti, farid; 12. blómsturin sýna sig á vøllunum; saungtídin (vorid) er komin, og turtildúfunnar raust heyrist á vorum vøllum; 13. fíkjutréd kriddar sína ávexti, og vínþrúgurnar ylma í sínum blóma. Upp, mín vinkona, mín frída, og kom! 14. Mín dúfa í klettaskorunni, í fjallsins fylgsnum, lát mig sjá þitt skapnadarlag, lát mig heyra þína raust! Því þín raust er sæt, og þinn skapnadur lystilegur."

15. Náid fyrir oss refunum, yrdlíngunum sem skémma víngardana! því vor víngardur er í blóma. 16. Minn vinur er minn og eg er hans; hann beitir (hjørdinni) medal liljanna. 17. Þángad til dagurinn kólnar, og skuggarnir lída burt, kom þá aptur; vertu, minn vinur, líkur rádýri edur hindar kálfi á þeim gilјóttu fjøllum.

## 3. Kapítuli.

Elskuginn leitar unnustunnar. Brúdarvísur Salómons.

1. Í minni sæng um nótt leitadi eg þess, sem mín sál elskar; eg leitadi hans, en eg fann hann ekki. 2. Eg skal fara á fætur, (sagdi eg) og gánga um borgina, eg vil leita þess sem mín sál elskar á strætum og torgum. Eg leitadi hans enn fann hann ekki. 3. Vaktararnir, sem gánga um stadinn, hittu mig. Hafid þér sjed, (sagdi eg) þann, sem mín sál elskar? 4. Naumast var eg frá þeim geinginn, þegar eg fann þann, sem mín sál elskar. Eg héldt honum fast, og sleppti honum ekki, þángad til eg leiddi hann í hús minnar módur, í herbergi þeirrar sem ól mig. 5. „Eg særi ydur, þér Jerúsalems dætur! vid rádýrin eda hindur merkurinnar: vekid ekki, vekid ekki mína unnustu, fyrr enn henni þóknast!"

6. Hvør er sú sem kémur úr eydimørkinni einsog reykstólpi, ylmandi af myrru og reykélsi og kramarans ylmdupti? 7. Sjá! Salómons sæng! 60 sterkir af þeim sterku í Ísrael í kríngum (hana). 8. Allir héldu á sverdum, kunna vel til strídś, hvør þeirra hefir sverdid vid sína mjødm, gégn næturinnar ótta. 9. Børurúm gjørdi Salómon Kóngur úr vidi af Líbanon. 10. Þess fætur gjørdi hann úr silfri, rjáfrid úr gulli, sætid af purpura; botninn var lystilega uppbúinn af Jerúsalems dætrum. 11. Gángid út Síons dætur, og sjáid Kóng Salómon undir þeirri kórónu, sem módir hans krýndi hann med á hans brúdkaups degi, á hans hjarta gledi degi!

## 4. Kapítuli.

Lýsíng brúdurinnar.

1. Sjá! føgur ert þú, mín vinkona! sjá!

føgur ert þú! þín augu bak vid skíluna eru dúfur; þitt hár eins og geita hjörd, sem liggur á fjallinu Gilead. 2. Þínar tønnur eins og klipt sauda hjörd, sem kémur af sundi, hvar mædurnar eru allar tvílembdar, og eingin lambslaus medal þeirra; 3. þínar varir sem purpura bordi; þinn munnur lystilegur; þínar kinnar bak vid þína skýlu eins og helftin af kjarnepli. 4. Þinn háls eins og Davíds turn, bygdur fyrir hertýi, í hvørjum ad hánga þúsund buklarar, allir skildir kappanna. 5. Þín tvø brjóst eins og tveir úngir rádýrs tvíburar, sem eru á beit medal liljanna. 6. Þángad til dagurinn verdur svalur, og skuggarnir flýa, vil eg gánga til myrru fjallsins og reykélsis hálsins. 7. Øll ertu føgur, mín vinkona, og eingin lýti eru á þér! 8. Med mér frá Líbanon, mín brúdur, med mér skaltu koma, líta nidur fyrir þig frá Amana tindi, frá Senirs og Hermons tindi, frá bælum ljónanna, frá fjøllum pardusdýranna! 9. Þú rænir mig mínu hjarta, mín systir, (mín) brúdur, þú rænir mig mínu hjarta med einu tilliti þíns auga, med einni kédju á þínum hálsi! 10. Hvørsu føgur er þín elska, mín systir, (mín) brúdur, hvørsu miklu dýrmætari eru þín ástar atlot, heldur enn vín, og ylmur þinna smyrsla heldur enn allt balsam! 11. Hunángsseimur drýpur af þínum vørum, (mín) brúdur! hunáng og mjólk er undir þinni túngu, og ylmur þinna klæda er Líbanons ylmur. 12. Þú ert lokadur aldingardur, mín systir, (mín) brúdur, læst lind, innsígladur brunnur; 13. þínar pløntur eru lysti runnur af kjarneplum med dírum ávøxtum, kofer (vínvidur) med nardus, 14. nardus og safran, kalmus og kanel, med allsháttar reykélsis búskum, myrru og alóe, med øllum bestu ylmjurtum; 15. uppspretta er í gardinum, lifandi vatnslind, sem buldrar frá Líbanon, (buldrandi rennur). 16. „Vaktu þig til, nordanvindur, kom sunnanvindur, blás þú um minn gard, svo ad hans básúnu jurtir drjúpi! vinur minn komi í sinn aldingard og eti hans ágjætu ávexti."

## 5. Kapítuli.

Unnustan leitar á náttarþeli ad sínum elskuga.

1. Eg kém í minn aldingard, mín systir, (mín) brúdur! eg plokka mína myrru og mína balsams jurt; et mitt hunáng, samt vínberja saft, drekk mitt vín ásamt med minni mjólk. „Etid, vinir, drekkid, verdid druknir, elskanlegir!"

2. Eg svaf, en mitt hjarta vakti. Þad er málrómur míns vinar, sem ber ad dyrum! „ljúk upp fyrir mér, mín systir, mín vinkona, mín dúfa, mín allrabesta! því mitt høfud er fullt af døgg, mínir lokkar fullir af næturinnar dropum". 3. Eg er kominn úr fatinu, hvørnig gét eg farid í þad aptur? eg er búinn ad þvo mér um fæturnar, hvørnig á eg ad gjøra þá óhreina aptur? 4. Minn vinur rétti høndina inn um gluggann, og mitt hjarta ólgadi honum á móti. 5. Eg fór á fætur til ad ljúka upp fyrir mínum vin, og mínar hendur drupu, af myrru, og mínir fíngur, af fljótandi myrru, á handfáng lokunnar. 6. Eg lauk upp fyrir mínum vin; en minn vinur var geinginn burt, farinn. Eg var utan vid mig, þegar hann taladi vid mig! eg leitadi hans, en fann hann ekki, eg kalladi á hann, en hann ansadi mér ekki. 7. Vaktararnir hittu mig, sem gánga um stadinn; þeir bördu mig, særdu mig; vaktarar múranna tóku af mér minn møttul. 8. Eg særi ydur Jerúsalems dætur: ef þid finnid minn vin — hvad eigid þid ad segja honum? ad eg sé sjúk af elsku! 9. „Hvad hefir þinn vin framyfir adra vini, þú fridasta medal kvenna? Hvad hefir þinn vin framyfir adra vini, ad þú særir oss svona?„ 10. Minn vin er hvítur og raudur, audþekt-

ur medal margra þúsunda; 11. Hans høfud (sem) besta gull, hans lokkar blaktandi pálmvidargreinir, svartir sem hrafn; 12. hans augu sem dúfur á vatnsbøkkum, þvegnar í mjólk, vel fódradar; 13. hans kinnar eru sem balsams bed, sem jurtadúskur, hans varir sem liljur, drjúpandi af fljótandi myrru; 14. hans hendur sem gull-hríngir, settir Tarsís steinum, hans líkami sem gjørdur af fílabeini, safír steinsettu; 15. hans fótleggir sem marmara stólpar, hvílandi á gullfótum; hans vaxtarlag sem Líbanon, frábrugdid, sem Sedrusvidur; 16. hans munnur sætleiki, allt hans fas elskusemi; svona er minn unnusti, svona minn vin, þér Jerúsalems dætur!

## 6. Kapítuli.

Hrós unnustunnar. Þau sem elskast kvedast á.

1. „Hvørt gékk vinur þinn, þú fridasta medal kvenna, hvørt mun hann hafa farid? vér skulum leita hans med þér!" 2. Minn vin gékk í sinn aldingard, ad blómsturbedunum, til ad skémta sér í gardinum, og til ad plokka liljur. 3. Minn vinur er minn, og eg em hans; hann skémtir sér hjá liljunum.

4. Føgur ertu, vinkona! einsog Tirsa a) lystileg einsog Jerúsalem; en óttaleg sem herflokkar. 5. Snú frá mér þínum augum, því þau hræda mig! Þitt hár er einsog hjørd geita, sem liggja á fjallinu Gilead. 6. Þínar tennur sem sauda hjørd, er kémur af sundi, allar mædurnar tvílembdar, og eingin medal þeirra lamblaus. 7. Þínir vángar, bakvid skýluna, einsog helftin af kjarnepli. 8. Sextíu eru drottníngarnar og áttatíu fridlurnar, og stúlkurnar óteljandi; 9. en ein er mín dúfa, mín ágjæta; hún er einbirni módur sinnar, sú útvalda, þeirrar sem hana ól, hana sjá dæturnar og prísa hana sæla; drottníngarnar og fridlurnar, og vegsama hana. 10. Hvør er sú sem kémur, skínandi, sem morgunrodi, føgur einsog túnglid, skjær sem sólin, og óttaleg sem herflokkar. 11. „Eg gékk nidur í nytagardinn, ad sjá grænkuna í dalnum, til ad vita hvørt vínvidargreinirnar væru farnar ad springa út, hvørt kjarneplin farin ad blómgast. 12. Mín sál vissi ekki (fyrr enn) hann setti mig á vagna míns gódvildarfulla fólks." 13. Snú þér vid, snú þér vid, Sulamit! snú þér vid, snú þér vid, svo vér sjáum þig! „Hvad viljid þér sjá á Sulamít?" lík er hún rødum Eingla skaranna b).

## 7. Kapítuli.

Sama efni.

1. Hvørsu føgur eru spor þinna skóa, þú fursta dóttir! ávali þinna mjadma er einsog hálsspaung, gjørd af meistara hønd; 2. þinn nafli er kríngløtt skál, sem ekki vantar ylmandi vín; þinn kvidur er hveitihrúga kríngsettur med liljum; 3. þín tvø brjóst eru einsog tveir úngir, rádýrs tvíburar; 4. þinn háls einsog fílabeins turn; þín augu einsog fiskivøtnin í Hesbon, hjá hlidinu Bat-Rabbim; þitt nef einsog Líbanons turn (tindar) sem veit ad Damaskus; 5. þitt høfud á þér einsog (fjallid) Karmel, og þitt høfud hár sem purpuri — Kóngurinn (verdur) bundinn af lokkunum! 6. Hvørsu føgur, hvørsu elskuleg ert þú, elskan mín, í yndislegleikanum! 7. Þessi þinn vøxtur er líkur pálmavidarins, og þín brjóst vínberja klasa. 8. Mér kémur í hug: upp í pálmavidartréd vil eg klifrast, og ná í þess greinir! Og lát samt þín brjóst vera, sem vínberja klasa, og andann úr þínu nefi sem epli. 9. Og þinn

V, 12. Vel fódradar: eiginl: búandi í gnægd. V. 14. Tarsís steinar, edal steinar sem fluttust frá Tarsus á Spáni. (Krisolit)? V. 4. *a.* Borg í Gydíngalandi. V. 13. *b.* Lík er hún etc, adr: hún er sem dans í Mahanaim, og adr: ødruvísi.

munn sem ágjætasta vín! sem vini mínum ljúflega rennur nidur, lædist yfir sofandi varir. 10. Eg tilheyri mínum vin, og hann hefir laungun til mín. 11. Kom, minn vin! vid skulum fara útá landid, dvelja í bændabýlum! 12. Svo skulum vid snemma gánga í víngardana, skoda hvørt víntréd er farid ad skjóta aungum, bera blómstur, hvørt kjarneplin eru í blóma: þar vil eg géfa þér mína elsku! 13. Elsku eplin (dúdaim) lukta, og vid vorar dyr eru allsháttar dírir ávextir, nýir og gamlir; minn vin! eg geimi þér þá!

## 8. Kapítuli.

Seinasta samtal brúdhjónanna.

1. O! ad þú værir bródir minn, sem hefdir sogid brjóst módur minnar! hitti eg þig, þó þad væri úti, svo mundi eg kyssa þig, og menn mundu ekki hæda mig. 2. Eg vil leida þig, fara med þig í hús módur minnar; þú skalt kénna mér; eg vil géfa þér ad drekka kriddad vín, kjarnepla løg (must). 3. Hans vinstri hønd undir høfdinu á mér, og hans hin hægri umfadmar mig!"

4. Eg særi ydur, Jerúsalems dætur! vekid ekki, vekid ekki unnustuna, fyrr enn henni þóknast!

5. Hvør er sú, sem kémur frá eydimørkinni og stydst vid sinn vin? „Undir eplatrénu (aldinum) vakti eg þig, þar ól þig módir þín, þar einmidt fæddi þig sú sem fæddi þig. 6. Haldtu mér sem innsigli vid þitt hjarta, sem innsigli vid þinn arm! því elskan er eins sterk og daudinn, og hennar vandlæti, fastheldid sem helja; þess glód er eldsglód, Guds logi. 7. Mikid vatn gétur ei sløkkt elskuna, og straumar flytja hana ekki burt. Gjæfi einhvør allann aud síns húss fyrir elskuna, mundu menn hæda hann.

8. Systir egum vid, enn þá litla, brjóstalausa. Hvørnig eigum vid ad fara med vora systir, þá menn bidja hennar? 9. Sé hún múrveggur, byggjum vid á henni silfurhøll, en sé hún dyr, geymum vid hana med hurd úr sedrusvid. 10. „Eg er múrveggur og mín brjóst sem turnar; þar fyrir var eg í hans augum, sem sú, er fridinn finnur a)."

11. Salómon átti víngard í Baal-Hamon. Hann fékk víngardinn vøkturunum; hvør þeirra skyldi koma med þúsund sikla silfurs fyrir hans ávexti. 12. Minn víngardur er fyrir mínum augum! „eig þú þúsundirnar, Salómon, og eigi þeir tvø hundrud vaktarar hans ávøxt."

13. Þú sem býr í aldingørdunum! vinir heyra þína raust; lát mig og heyra hana! 14. „Flý, minn vin! vertu líkur rádýri edur hindarkálfi á Balsamsfjøllunum."

# Spámadurinn Esajas.

## 1. Kapítuli.

Óþakklæti Ísraelsmanna vid Gud; sidaspilling og hjágudadýrkun þjódarinnar.

1. Þetta er sú vitran, er Esajas Amosson fékk um Júdaríki og Jerúsalemsborg, á døgum Ussíass, Jótams, Akasar og Esekíass, Júdaríkis Konúnga.

2. Heyrid, þér himnar! Hlusta til, þú jørd! því Drottinn talar. Eg hefi fóstrad børn og uppalid þau, en þau hafa sett sig upp á móti

V. 10. a. P. e. því leitst unnustanum á mig.

mér. 3. Uxinn þekkir eiganda sinn, og asninn jötu húsbónda síns; en Ísraelslýdur þekkir ekkért, mitt fólk athugar ekkért. 4. Vei hinni syndugu þjód! Vei þeim lýdnum, sem sekur er í þúngum misgjørdum, því afspreinginu vondra manna, þeim børnum er haga illa framferdi sínu! Þeir hafa yfirgéfid Drottinn, hafnad hinum heilaga Gudi Ísraels, og snúid baki vid honum. 5. Til hvørs er ad hirta ydur framar? þér brjótist æ því meir í móti mér. Allt høfudid er sárt, allt hjartad kránkt, 6. frá hvirfli og allt til ilja er ekkért heilt, ekkért nema mar, kúlur, nýar benjar, sem blódid er ekki úr kreist, og ekki um bundid, og ekki mýktar med vidsmjøri. 7. Ydvart land er í eydi, ydar borgir í eldi brendar; útlendir menn uppeta ydar akurlønd ad ydur ásjáendum; allt er eydilagt, eins og þar sem útlendíngar hafa umturnad øllu. 8. Síonsborg er ein eptir, eins og vøkuskáli í víngardi, eins og næturhreysi í melónugardi a), eins og sá stadur, sem sloppid hefir úr hershøndum. 9. Ef Drottinn allsherjar hefdi ekki látid litlar eptirleifar eptir verda af oss, þá værum vér ordnir sem Sódómsborg, þá værum vér líkir Gómorraborg.

10. Heyrid ord Drottins, þér høfdíngjar Sódómsborgar! Hlustid á løgmál vors Guds, þér innbyggjendur Gómorraborgar! 11. Hvar til skulu mér ydar mørgu fórnir? segir Drottinn. Eg em leidur ordinn á brennifórnum hrútanna, og á feiti alifjársins; eg hefi einga lystíng á blódi uxanna, lambanna og hafranna. 12. Þér komid til þess ad birtast fyrir mínu augliti; en hvørr hefir bedid ydur ad troda fótum forgarda mína? 13. Framberid ekki lengur fánýtar matfórnir! Eg hefi andstygd á reykjarfórnum, túnglkomuhátídum, hvíldardøgum og helgisamkomum; eg fæ ekki þolad syndsamlega hátídafundi. 14. Eg hata ydar túnglkomuhátídir og helgisamkomur; þær eru mér til byrdi, eg em þreyttur ordinn ad bera þær. 15. Þó þér fórnid upp høndum, þá byrgi eg þó mín augu fyrir ydur; þó þér bidjid mørgum bænum, þá heyri eg þær þó ekki. Ydar hendur eru fullar af blódi. 16. Þvoid ydur, hreinsid ydur, takid ydar illsku breitni í burt frá mínum augum, og látid af ad gjøra illt! 17. Lærid gott ad gjøra, leitid þess, sem rétt er; hjálpid þeim, sem fyrir ofríki verdur, unnid réttra laga hinum munadarlausa, og verjid málefni ekkjunnar. 18. Komid sídan, og eigumst løg vid, segir Drottinn. Þó ydar syndir væru sem skarlat, þá skyldu þær verda hvítar sem snjór, og þó þær væru raudar sem skarlatsormur, þá skyldu þær verda sem ull. 19. Ef þér hlýdid mér fúslega, þá skulud þér njóta landsins gæda; 20. en ef þér þverskallist og verdid mótsnúnir, þá skulud þér verda sverdbitnir; þad er atkvædi Drottins.

21. Hvørnig stendur á því, ad hin trúfasta borgin skuli vera ordin ad skjækju? Fyrrmeir var hún full réttinda, og réttlætid hafdi þar bólfestu, en nú búa þar manndrápsmenn. 22. Silfur þitt er ordid ad málmblendíngi, og vín þitt ad vatnsblandi. 23. Høfdíngjar þínir eru mótsnúnir Gudi, en samlaga sig þjófum; allir elska þeir mútu, og sækjast eptir fégjøfum; þeir unna ekki réttra laga hinum munadarlausa, og málefni ekkjunnar fær ekki ad koma fyrir þá. 24. Þar fyrir segir hinn alvaldi, Drottinn allsherjar, hinn voldugi Ísraels Gud: vei! eg skal svala mér á mótstødumønnum mínum, og hefna mín á óvinum mínum. 25. Eg skal leggja hønd á þig aptur, og bræda þann málmblendíng, sem vid þig lodir, uns þú verdur skír, og skilja frá allt blýid; 26. eg skal fá þér aptur slíka dómendur, sem í øndverdu, og adra eins rádgjafa og fyrrum. Eptir þad skaltu kallast bústadur réttvísinnar, og borgin trúfasta. 27.

V. 8. *a.* Melóna er talin med eplajurtum.

Síonsborg skal með réttum dómi frelsuð verða,
og þeir af innbyggjendum hennar, sem snúa
sér (frá illu), skulu frelsast fyrir réttlætið;
28. en yfirtroðslumenn og afbrotamenn skulu
tortýnast hvørr með øðrum, og þeir, sem yfir-
gefa Drottinn, skulu undir lok líða. 29. Þá
munuð þér blygðast fyrir þau terpentíntrén,
sem yður þókti svo vænt um, og skammast
yðar fyrir þá lystigarðana, sem þér høfðuð
útvalið yður. 30. Því þér munuð verða sem
það terpentíntré, er fellt hefir laufbløð sín, og
eins og vatnslaus aldingarður; 31. hinir vold-
ugu skulu verða sem strý, og verk þeirra sem
eldneisti: hvørttveggja mun uppbrenna hvað
með øðru, án þess nokkur fái sløkkt.

## 2. Kapítuli.

Dýrkun hins sanna Guðs skal útbreiðast meðal allra
þjóða, en ofmetnaður og hjágudadýrkun, niðurkefjast.

1. Þetta er það, sem Esajasi Amossyni
vitraðist um Júða ríki og Jerúsalems borg:
2. Á hinum síðustu døgum mun fjall það,
er Drottins hús stendur á, grundvallað verða
á fjallatindi, og gnæfa uppyfir aðrar hæðir, og
þángað munu allir heiðíngjar streyma; 3. og
margar þjóðir munu búast til ferðar, og segja:
komið, látum oss uppfara á Drottins fjall, til
húss Jakobs Guðs, að hann vísi oss sína vegu,
svo vér meigum gánga á hans stigum; því frá
Síonsfjalli mun løgmálið út gánga, og orð
Drottins frá Jerúsalemsborg. 4. Og hann
(Drottinn) skal dæma meðal heiðíngjanna, og
skéra úr málum margra þjóða, svo þær munu
smíða plógjárn úr sverðum sínum, og kornsigðir
úr spjótum sínum. Eingi þjóð skal sverð reiða
að annari þjóð, og ekki læra hernaðaríþrótt
framar.
5. Þér Jakobs niðjar, komið, látum oss
gánga í ljósi Drottins! 6. Því þú (Drott-
inn!) hefir yfirgéfið þinn lýð, Jakobs niðja,
af því þeir eru enn frekari enn austurlendíngar,
þeir fremja augnaseið, einsog Filistear, og legg-
ja lag sitt við útlendska menn. 7. Land þeirra
er fullt af silfri og gulli, og þeir hafa ógrynni
lausafjár; land þeirra er fullt af hestum, og
vagnar þeirra ótølulegir. 8. En land þeirra
er einnig fullt af hjágudum; þeir falla fram
fyrir eigin handaverkum sínum, fram fyrir því,
sem fíngur þeirra hafa tilbúið. 9. Þess vegna
skal hvørr maður niðurbeygjast, hvørr maður
lítilægjast; þú munt eigi fyrirgéfa þeim slíkt.
10. Gakk þú inn í bergið, og fel þig nið-
ri í jørðunni fyrir ógnum Drottins og ljóm-
anum hans hátignar. 11. Dramblæti manns-
ins, skal lítilækkast, og hroki mannanna niður-
beygjast; Drottinn einn skal á þeim degi háleit-
ur vera. 12. Því dagur Drottins allsherjar
kémur yfir allt það, sem er dramblátt, oflætis-
fullt og hrokafullt, og það skal niðurlægt verða;
13. hann kémur yfir øll háreist og gnæfandi
sedrustré á Líbanonsfjalli, og yfir allar Basans
eikur; 14. yfir øll há fjøll og allar gnæfandi
hæðir; 15. yfir alla háfa turna, og yfir alla
ramgjørva múrveggi; 16. yfir alla Tarsísborg-
ar knøru, og yfir allt það, sem fagurt er á að
líta. 17. Dramblæti mannsins skal lítilækkast,
og hroki mannanna niðurbeygjast; Drottinn
einn skal á þeim degi háleitur vera; 18. en
hjágudirnir skulu með øllu undir lok líða. 19.
Þá munu menn smjúga inn í bjarghellra og
niður í sylskni jarðar fyrir ógnum Drottins
og fyrir ljómanum hans hátignar, þegar hann
rís upp til að skélfa jørðina. 20. Á þeim
degi mun hvørr maður fyrir moldvørpur og leð-
urbløkur niður kasta þeim skurðgoðum og lík-
neskjum, sem þeir hafa búið sér til úr silfri og

V. 29. Undir terpentíntrjám og í lystigørðum voru blót framin. V. 31. Hvørttveggja, þ. e. einsog í eistinn kveykir í strýinu, eins mun athæfi hinna voldugu verða þeim til gløtunar.

gulli til ad falla fram fyrir og tilbidja; 21. en sjálfir munu þeir skreidast inn í bjarghellra og hamarskorur fyrir ógnum Drottins og fyrir ljómanum hans hátignar, þá hann rís upp til ad skélfa jardríki. 22. Treystid ekki á nokkurn mann, sem lífsanda dregur; því, hve mikils er hann metinn?

## 3. Kapítuli.

Sidaspilling Gydínga; ofríki hinna voldugu; oflæti og skart kvenna.

1. Því, sjá þú! hinn alvaldi, Drottinn allsherjar, mun kippa hvörri stod og styttu undan Jerúsalemsborg og Júdaríki, og svipta þau öllum byrgdum brauds og vatns, 2. hetjum og hermönnum, dómendum og spámönnum, forspáum og gömlum mönnum, 3. höfudsmönnum, virdíngamönnum, rádgjöfum, hugvitsmönnum og kunnáttumönnum. 4. Eg vil fá þeim úngmenni fyrir höfdíngja, og smásveinar skulu drottna yfir þeim. 5. Á medal fólksins skal madur manni þreyngja, og einn ödrum bægja, únglíngurinn skal offast vid hinn aldrada, og ótiginn madur vid tignarmanninn. 6. Þá mun hvörr taka sinn ættmann (og segja vid hann): þú átt klædnad, þú skalt vera vor yfirmadur, þú skalt ráda bót á þessum vandrædum. 7. Þá mun hinn kalla hástöfum, og segja: eg get ekki læknad, eg á hvörki til föt né fædi í húsi mínu; gjörid mig ekki ad yfirmanni fólksins! 8. Þannig mun Jerúsalems borg hrapa, og Júdaríki falla, af því þeir í ordi og verki standa í móti Drottni, og jafnbjóda hans tignarveldi. 9. Ósvífni þeirra vitnar í gégn þeim; þeir gjöra syndir sínar heyrum kunnar, eins og þeir í Sódómsborg, og leyna þeim ekki. Vei þeim! því þeir baka sér sjálfum ógjæfu. 10. Segid til hinna gudhræddu, ad þeim muni vel vegna, því þeir munu njóta ávaxtar verka sinna. 11. Vei hinum ógudlega! honum mun illa vegna, því honum mun goldid verda eptir tilgjördum hans.

12. Æ, minn lýd! þad eru börn, sem þjá hann, og konur, sem drottna yfir honum. Þú minn lýdur! leidtogar þínir leida þig afleidis, og skémma þá brautina, sem þú áttir ad gánga. 13. Drottinn er framgeinginn til ad sækja sökina, hann stendur frammi til ad dæma þjódirnar. 14. Drottinn vill fram gánga til dóms í gégn forstjórum og yfirmönnum síns lýds: „þér erud þad, sem lagt hafid víngardinn í eydi; í ydar húsum er þad fé, sem rænt hefir verid frá hinum fátæka. 15. Hvad ætlist þér fyrir? Viljid þér undirkúga minn lýd? viljid þér gjöra út af vid hina fátæku? segir hinn alvaldi, Drottinn allsherjar.

16. Enn fremur segir Drottinn: sökum þess ad dætur Síonsborgar eru dramblátar, gánga med reigda hálsa, depla (tildra) augunum, tifa í gaungunni og hafa látgædisfullann fótaburd: 17. þá mun hinn alvaldi hárlausann gjöra hvirfil Síonsborgar dætra, og Drottinn mun gjöra blygdun þeirra opinbera. 18. Á sama degi mun hinn alvaldi í burt taka þær hinar fögru öklaspennur, húfurnar, hálstýnglin, 19. eyrnaperlurnar, armfestarnar, andlits skýlurnar, 20. motrana, öklafestarnar, lindana, ilmbaukana, töfraþíngin, 21. fíngurgullin, nasanistin, 22. glitklædin, kápurnar, skikkjurnar og púngjurnar, 23. blæurnar, línserkina, ennidúkana og yfirhafnirnar. 24. Þær skulu hafa illan daun fyrir sætan ilm, fetil fyrir beltislinda, sköllótt höfud fyrir sveipad hár, hærubánd fyrir brjóstgjörd, dapran yfirlit í stadinn fyrir fegurd. 25. Menn þínir munu fyrir sverdi falla, og kappar þínir í orustu. 26. Hlid Jerúsalemsborgar munu sýta og harma, og hún sjálf mun sitja einmana á jördunni.

## 4. Kapituli.

*Framhald. Vidréttíng á hag Gydíngalýds.*

1. Þá munu sjø konur grípa um einn mann, og segja: „vér skulum sjálfar fæda oss og klæda, lát þú oss ad eins nefnast eptir þínu nafni, og afmá vora vanvirdu“.

2. Á þeim sama degi mun kvistur Drottins prýdilegur og veglegur verda, og ávøxtur landsins hár og fagur fyrir þá, sem frelsadir verda af Ísraelslýd. 3. Sá sem eptir verdur skilinn á Síonsfjalli, og sá sem eptir verdur í Jerúsalemsborg, sérhvørr sá, sem innskrifadur er í tølu enna lifendu í Jerúsalemsborg, skal þá kallast heilagur, 4. þegar hinn alvaldi hefir afþveigid óhreinindi Síonsborgar dætra, og burthreinsad þad blód, sem í Jerúsalemsborg er, med sínu réttdæmi og med sínni vandlætíngu a). 5. Og Drottinn mun láta þykt ský stadnæmast b) um daga yfir hvørju bygdu bóli á Síonsfjalli, og yfir hvørri samkomu, sem þar verdur haldin, en ljómandi eldsloga á nóttum; því yfir øllu því, sem dýrdlegt er, skal skýla vera. 6. Og laufskáli skal vera til forsælu fyrir hitanum á daginn, og til hælis og skýlis fyrir steypiregnum og skúrum.

## 5. Kapituli.

*Dæmisaga um víngard; lestir og andvaraleysi þjódarinnar; lýsíng Kaldea, sem áttu ad eydileggja Júdaríki.*

1. Eg vil kveda kvædi fyrir vin mínum, þad er kvædi vinar míns um víngard sínn. Vinur minn átti víngard í felli nokkuru, þar sem var frjóssamur jardvegur. 2. Hann stakk upp gardinn, og ruddi burt grjótinu úr honum; þar gródursetti hann einn hinn besta vínvid, bygdi turn þar í gardinum, og hjó þar út vínlagarþró; og nú vonadi hann, ad gardurinn mundi bera vínber, en hann bar vínmudlínga. 3. Dæmid nú, þér innbyggjendur Jerúsalemsborgar, og þér Júdaríkis menn, milli mín og míns víngards. 4. Vard nokkud meira ad gjørt vid víngard minn, en eg hafda gjørt vid hann? Hví gaf hann þá af sér vínmudlínga, þegar eg vonadi, ad hann mundi bera vínber? 5. Eg vil nú segja ydur, hvad eg vil gjøra vid minn víngard. Eg vil taka burt þyrnigérdid, sem í kríngum hann er, svo þad verdi haft fyrir eldivid, og rífa nidur gardinn, svo hann verdi fótum sundur trodinn. 6. Eg vil láta hann liggja í eydi; hann skal ekki verda snidladur, og ekki slódadreginn (hreinsadur); þar skulu vaxa þyrnar og þistlar; og skýunum vil eg um bjóda, ad þau láti ekki regnskúrir yfir hann drjúpa.

7. Ísraels nidjar eru víngardur Drottins, og Júdaríkis menn hans ástkjær gródursetníng. Hann vonadi eptir rétti, en sá ekki annad en manndráp; hann vænti eptir réttvísi, en heyrdi ei annad en neydarkvein. 8. Vei þeim, sem bæta húsi vid hús, og akri vid akur, þángad til ekkért rúm er til (handa ødrum), af því þér erud ordnir einbyggjar landsins. 9. Drottinn allsherjar hefir hvíslad í eyra mér: „í sannleika skulu þau enu mørgu húsin verda ad audn, og þau hinu miklu og føgru í eydi standa; 10. því tíu víngards plógslønd skulu ad eins af sér géfa einn pott, og ein sképpa sædis ekki nema tunnu“. 11. Vei þeim, sem upp rísa árla morguns til þess ad sækjast eptir áfeingum drykk; vei þeim, sem sitja fram á kvøld til þess ad gjøra sig víndrukkna, 12. og hafa hørpur, gígjur, bumbur og hljódpípur vid víndrykkju sína, en géfa ekki gjætur ad því, sem Drottinn gjørir, og sjá ekki verkid hans handa. 13. Þess vegna verdur minn fáfródi lýdur herleiddur; hans besta

---

V. 4. *a.* Med sínu réttdæmi og med sínni vandlætíngu, á hebr, „í anda réttdæmis (dóms) og í anda brennonda“.
V. 5. *b.* Mun láta þykt ský stadnæmast, á Hebr: „mun skapa ský og reyk“.

mannval deyr af húngri, og alþýdan vanmegn-
ast af þorsta. 14. Þess vegna hefir daudans
geimur opnad sig, og upp spanid sitt geisivída
op, til þess ad skrautmenni borgarinnar og al-
múginn, hávadamennirnir og gledimennirnir fari
nidur þángad. 15. Sérhvørr madur skal nid-
urbeygjast, sérhvørr madur lítilætast, og augu
dramblátra nidurlægjast. 16. Þá skal Drott-
inn allsherjar upphefjast í dóminum, og sá hinn
heilagi Gud audsýna sig dýrdlegann í réttlæti,
17. þegar lømbin gánga á beit, hvar sem þau
vilja rása, og útlendir menn uppeta hinar audu
lendur ríkismannanna. 18. Vei þeim, sem
draga ránglætid í bøndum lýginnar, og syndina
eins og í vagnreipum; 19. þeim, er segja: „flýti
hann sér, og framkvæmi brádlega sína fyrir-
ætlun, svo vér megum sjá hana; látum ráda-
gjørd hins heilaga Israels Guds nálgast og
fram koma, svo vér gétum vitad hana". 20.
Vei þeim, sem kalla hid vonda gott, og hid
góda vondt, sem gjøra myrkur ad ljósi, og
ljós ad myrkri, beiskt ad sætu, og sætt ad
beisku. 21. Vei þeim, sem eru vísir í sínum
eigin augum, og hyggnir í augsýn sjálfra sinna.
22. Vei þeim, sem kappar eru vín ad drekka,
og øflugar hetjur til ad byrla áfeingan drykk;
23. þeim, sem taka fé til sýknar hinum ógud-
lega, en halla rétti hinna ráðvøndu. 24. Þess
vegna, eins og eldsloginn eydir hálmleggjun-
um, og sinan hnígur nidur í bálid, eins skal
rót þessara manna verda sem efja, og blóm
þeirra upp rjúka sem moldarryk, af því þeir
høfnudu løgmáli Drottins allsherjar, og fyrir-
litu ord hins heilaga Israels Guds. 25.
Þess vegna er reidi Drottins upptendrud í
gégn sínum lýd: hann útréttir hønd sína móti
honum, og slær hann, svo fjøllin skjálfa, og
líkin liggja sem saur á strætum. Allt fyrir þad linn-
ir ekki hans reidi, og hønd hans er enn þá útrétt.
26. Hann mun reisa hermerki fyrir fjarlæg-
um þjódum, hann mun blýstra og stefna þeim
híngad frá ytstu landsálfum; og sjá, þeir munu
koma fljótt og skyndilega. 27. Á medal þeirra
er eingi sá, ad mæddur sé, einginn, sem hrasi,
einginn, sem dotti eda syfji; eingum þeirra losn-
ar belti frá lendum, og ekki slitnar skóþveingur
nokkurs þeirra. 28. Ørvar þeirra eru brýnd-
ar, og allir bogar þeirra upp dregnir; hófar
hestanna eru sem steinn og vagnhjólin sem vind-
bylur. 29. Þeir øskra sem ljónsmædra, og
grenja sem ljónskálfar; þeir geisa áfram, grípa
herfángid, og hafa þad á burt, án þess nokk-
urr fái því bjargad. 30. Á þeim degi munu
þeir geisa á hendur lýdnum, einsog sjáfarólga.
Hann horfir á land, upp, en sér ekki nema
myrkur og neyd, og dagsbirtan verdur myrk
í hruni þess.

## 6. Kapítuli.

Esajas fær vitrun, ad boda Gydíngum hegníngu Guds.

1. Sama ár sem Usías Konúngur andadist,
sá eg hinn alvalda, sitjanda á háreistum og
gnæfanda stóli, og faldur klæda hans breiddist
um allt musterid. 2. Hjá a) honum stódu Ser-
affar (Høfudeinglar), hafdi hvørr þeirra sex
vængi; med tveimur huldu þeir ásjónur sínar,
med tveimur fætur sína, og med tveimur flugu
þeir. 3. Hvørr þeirra kalladi til annars, og
sagdi: heilagur, heilagur, heilagur er Drottinn
allsherjar, øll jørdin er full af hans dýrd. 4.
Vid raust þeirra, þá þeir kølludu, skulfu und-
irsyllur þrøskuldanna, og húsid vard fullt af
reyk. 5. Þá sagdi eg: vei mér, eg er tapad-
ur! því eg em madur, sem hefi saurugar varir
og bý medal þess fólks, sem hefir saurugar
varir, og mín augu hafa sjed Konúnginn, Drott-
inn allsherjar. 6. Einn Seraffanna flaug þá
til mín; hann héldt á heitum steini, sem hann

V. 2. *a.* Jer. 36, 21.

hafdi tekid af altarinu med taung. 7. Hann snart munn minn med steininum, og sagdi: sjá! þessi (steinn) hefir snortid varir þínar, þín misgjørd er burttekin og synd þín fyrirgéfin. 8. Eg heyrdi raust hins alvalda, hann sagdi: Hvørn skal eg senda? Hvørr vill vera vor erindsreki? Eg svaradi: sjá! hér em eg, send þú mig! 9. Hann sagdi: Far og seg þessu fólki: hlýdid grandgæfilega til, en takid þó ekki eptir neinu; horfid á vandlega, en verdid þó einskis vísir! 10. Gjør þú hjarta þessa fólks tilfinníngarlaust, og eyru þess daufheyrd, og apturloka eyrum þess, svo þeir sjái ekki med augum sínum, heyri ekki med eyrum sínum, og skilji ekkért af viti sínu, ad þeir mætti snúast og verda heilbrygdir. 11. Eg sagdi: hvørsu leingi, alvaldi Gud? Hann svaradi: þángad til borgirnar standa í eydi óbygdar, og húsin mannlaus, og landid verdur gjøreydt, 12. og þar til er Drottinn hefir rekid fólkid lángt í burt þadan, og landid er ordid ad stórri audn. 13. Tíundi hlutur fólksins skal þó enn eptir verda í landinu, og skal þó sá hluti aptur útrekinn verda. En eins og terpentíntréd og eikin halda stofni sínum, þó þau séu upp høggvin, eins skal af stofni þessa fólks fram koma heilagt afspreingi.

## 7. Kapítuli.

*Fyrirsögd eydilegging Sýrlands og Israelsríkis, og hernadur Egyptalands og Assýríumanna á Júdaríki.*

1. Svo bar til á døgum Akasar, Konúngs í Júdaríki, Jótamssonar, Usíassonar, ad Rezín, Sýrlands Konúngur, og Peka Remalíuson, Konúngur í Israelsríki, fóru upp til Jerúsalemsborgar til ad herja á hana, en gátu ekki tekid borgina. 2. En er ættnidja Davíds (Konúngi Júdaríkis) kom sú fregn, ad Sýrlands Konúngur hefdi tekid sér stødu í Efraimslandi (Israelsríki), þá skélfdist hjarta hans og þegna hans, eins og þá skógartré skjálfa fyrir vindi. 3. Þá sagdi Drottinn til Esajasar: gakk þú og Sear-Jasúb, sonur þinn, til móts vid Akas, til enda veituskurdar hinnar efri tjarnar, á leid til akurs bleikjarans, 4. og seg til hans: vert þú var, og þó ókvídinn; óttast þú eigi, og lát eigi hjarta þitt blotna fyrir þessum tveimur rjúkandi brandabrotum, fyrir hinni brennandi reidi þeirra Rezíns og Sýrlendínga og Remalíusonar, 5. þó Sýrlendíngar og Efraimsmenn og Remalíusonur hafi ill rád med høndum í gégn þér, og segi: 6. látum oss fara herfør inn í Júdaríki, setjast um borgina, taka hana med herskildi, og setja Tabealsson þar til Konúngs. 7. Svo segir Drottinn hinn alvaldi: þad skal ekki takast, og ekkért þar af verda. 8. Dammaskusborg skal vera høfudborg Sýrlands, og Rezín skal vera høfudsmadur Dammaskusborgar; en ádur en lidin eru sextíu og fimm ár, skal Efraimsríki sundrast, og ekki vera leingur þjód fyrir sig. 9. Samaría skal vera høfudborg Efraimsættar, og Remalíuson høfudsmadur Samaríu. Ef þér trúid mér ekki, þá munud þér eigi fá stadist.

10. Enn fremur taladi Drottinn til Akasar, og sagdi: 11. bid þér eins teikns af Drottni, Gudi þínum, hvørt sem þú vilt heldur beidast teikns úr djúpinu eda ofan ad frá hædum. 12. Akas svaradi: eg vil einskis bidja, svo eg freisti ekki Drottins. 13. Þá sagdi hann (Esajas): heyrid, þér ættnidjar Davíds! nægir ydur þad ekki, ad þér ertid mennina, nema þér einnig ertid minn Gud? 14. Þess vegna mun hinn Alvaldi géfa ydur teikn sjálfur: sjá! mey nokkur mun barnshafandi verda og son fæda, þann mun hún heita láta „Immanú-El" (Gud er med oss). 15. Skyr og hunáng skal hann eta a),

V. 15. *a.* Vegna þess ad korn og vín fékkst ekki til hlítar, medan ófridurinn stód. Skyr eda mjólkurhlaup; adrir „smjør", en Austurlendingar hafa ekki smjør, nema sem læknismedal, til áburda.

uns hann hefir vit á ad hafna hinu illa og
útvelja hid góda. 16. En ádur en sveinn=
inn hefir lært ad hafna hinu illa og útvelja
hid góda, skal land þad, hvørs tvo Konúnga
þú hræðist nú, verda í eydi lagt.

17. En yfir þig og yfir þegna þína og
yfir fødurætt þína mun Drottinn, fyrir hønd
Assýríukonúngs, koma láta þá daga, ad ekki
hafa slíkir yfir lidid, sídan Efraimsætt skildist
frá Júdaríki. 18. Á þeim degi mun Drott=
inn blýstra á þær flugur, sem til eru í øllum
Egyptalands síkjum, og á þær býflugur a), sem
eru í Assýríulandi. 19. Þær munu koma,
og leggjast flokkum saman í eydibalina, í berg=
skorurnar, í alla þyrnirunna, og í alla flóa.
20. Á þeim degi mun hinn Alvaldi med hár=
kníf, leigdum fyrir handan fljót, fyrir hønd
Assýríu Konúngs afraka hárid af høfdinu b)
og fótunum, og einnig burtnema skéggid. 21.
Þá mun svo fara, ad ali madur kú og tvær
ær, 22. þá skal hann fá svo mikla mjólk, ad
hann skal hafa skyr til matar; því á skyri og
hunángi skal hvørr madur lifa, sem eptir verdur
í landinu. 23. Þá mun svo fara, ad allstad=
ar þar sem ádur stódu þúsund víntré, þúsund
sikla virdi, þar skulu vara þyrnar og þistlar.
24. Menn skulu ekki fara þar um, nema þeir
hafi med sér ørvar og boga; því allt landid
skal ekki annad vera en þyrnar og þistlar.
25. Upp í þau fell, sem ádur voru slódadreg=
in, skal eingi madur fara, af hrædslu fyrir
þyrnum og þistlum. Menn munu hleypa
þángad nautpeníngi, og láta saudfénad tradka
þá nidur.

## 8. Kapituli.

Enn spádómur um eydilegging Sýrlands og Isra=
elsríkis; um hernad Assýríumanna á Júdaríki;
traust á Drottni.

1. Drottinn sagdi til mín: tak þér stórt
bókfell, og rita þar á med algeingu letri,
„lemaher Schalal chasch baz (skjótur til ráns,
fljótur til fángs) c)“. 2. Eg tók mér gild
vitni til þessa, kénnimanninn Urías og Saka=
rías Jeberekíasson. 3. Eg hafdi komid til
Spámannskonunnar d), og vard hún þúngud,
og ól son. Þá sagdi Drottinn til mín: lát þú
hann heita „Maher=schalal=chasch=baz“ (þ.
e. skjótur til ráns, fljótur til fángs); 4. því
ádur enn sveinninn lærir ad kalla „fadir minn“
og „módur mín“, skal audur Dammaskus=
borgar og herfáng Samaríu burtflutt verda á
undan Assýríu Konúngi.

5. Enn fremur taladi Drottinn til mín, og
sagdi: 6. Af því ad þessi lýdur fyrirlítur hin
straumhægu Sílóa=vøtn e), en tekur feigin=
samlega vid Rezín og Remalíusyni, 7. þess
vegna þá mun hinn Alvaldi láta yfir þá koma
hin strídu og straungu vøtn Fljótsins f), Ass=
ýríu Konúng med øllu hans einvalalidi, svo
fljótid skal gánga upp yfir alla sína farvegu, og
flóa yfir alla bakka; 8. sídan skal þad brjót=
ast inn í Júdaríki, flæda þar yfir, þar til manni
tekur undir høku, og breida skaut sín yfir allt
þitt land, eins vídt og þad er síg til. Gud er
med oss! 9. Skélfist, þér þjódir, og ædrist!
heyrid þad, allar landsálfur jardarinnar: her=
klædist og ædrist, herklædist og ædrist! 10.
Takid rád ydar saman! þau skulu ad eingu

---

V. 18. *a.* Býflugur, adrir, „hvepsur“ (einskonar villi=býflugur eda randaflugur). V. 20. *b.* Raka hárid af høfdi og fótum er ad refsa þeim ædri og lægri; ad burtnema skéggid, ad gjøra mann fyrirlitlegan, samanb. 9, 14. 15. V. 1. *c.* Ordrétt: „til þess ad ná skjótt herfánginu, flýtir hann sér til rána“. V. 3. *d.* Spámannskona, kona sjálfs Spámannsins Esajasar. V. 6. *e.* Sílóa, lækur hjá Jerúsalemsborg. V. 7. *f.* Evfrats.

verda. Mælid málum ydar! — þau skulu eingan framgáng fá, því — Gud er med oss! 11. Því svo sagdi Drottinn til mín, um leid og hann tók í hønd mér, og varadi mig vid því, ad gánga sama veg og þetta fólk geingur; hann sagdi: 12. „þér skulud ekki kalla samband a) allt þad, sem þetta fólk kallar samband, og ekki óttast þad, sem þad óttast, og aungvu kvída. 13. Drottinn allsherjar, hann veri ydur heilagur! óttist hann, hrædist hann! 14. Hann skal vera ydar gridastadur, en hann skal líka verda ásteytíngarsteinn og hrøsunarhella fyrir bádar ættþjódir Israels, og snara og gildra fyrir innbyggjendur Jerúsalemsborgar; 15. og margir af þeim munu hrasa, falla og meida sig, festast í snørunni og verda teknir.

16. „Bitt þú saman vitnisburdinn, og innsigla lærdóminn í vidurvist minna lærisveina (8, 2)". 17. Eg vænti Drottins, þó hann byrgi nú auglit sitt fyrir Jakobs nidjum; eg bíd eptir honum. 18. Sjá þú! hér em eg, og og þau børn, sem Drottinn hefir géfid mér! vid skulum vera Israelsmønnum teikn og fyrirmyndan frá Drottni allsherjar, honum, sem býr á Síonsfjalli. 19. Og ef þeir segja til ydar, „leitid frétta hjá konum þeim, er upp vekja dauda menn úr jørdu b), og hjá fjølkýngismønnum, þeim er umla c) og mudla fyrir munni sér!" þá skulud þér svara: á ekki fólkid ad leita frétta hjá Gudi sínum? á þad ad leita frétta hjá hinum daudu, í stadinn fyrir hjá enum lifendu? 20. Gjætid lærdómsins og vitnisburdarins (8, 16)! Ef þeir tala ekki samkvæmt honum, (þá vitid), ad fólkid hefir einga birtu, 21. heldur ráfar þad um í landinu hrjád og húngrad; og þegar þad húngrar, mun þad í brædi sinni formæla Konúngi sínum og Gudi sínum, og mæna til himins; 22. en þegar þad rennir augum til jardar, sjer þad ekki annad en neyd og myrkur, þreyngíngar dimmu og þykkan sorta.

23. En í því landinu, hvar (ádur) var þreyngíng, þar skal ekki (leingur) myrkur vera. Einsog hann (Drottinn) fyrr meir gjørdi Sebúlonsland og Neftalíland fyrirlitlegt, eins mun hann sídar meir fagran gjøra veginn med vatninu fyrir handan Jórdan, Galíleu heidíngjanna.

## 9. Kapítuli.

*Vidréttíng á hag Gydíngalýds; tign og veldi Frelsarans. Hótunarord til Gydínga sekum óhlýdni þeirra vid Gud.*

1. Sú þjód, sem í myrkrinu geingur, sjer mikid ljós: yfir þeim, sem búa í landi náttmyrkranna, ljómar føgur birta. 2. Þú gjørir þessa þjód fjølmenna, og eykur størum hennar føgnud: menn gledja sig fyrir þínu augliti, einsog þegar menn gledjast á kornskérutímanum, og einsog menn leika af feginleik, þegar herfángi er skipt. 3. Því okid, sem hún bar, stafinn, sem reid ad herdum hennar, barefli verknaudarmannsins hefir þú í sundur brotid, einsog á degi Midíansmanna (10, 26), 4. þegar hvørr madur batt á sig brynhosu í ofbodi, og klædin velktust í blódi, og allt, sem brenna nádi, vard eldsmatur. 5. Því eitt barn er oss fædt, sonur er oss géfinn; á hans herdum skal høfdíngjadómurinn hvíla; hann skal heita „hinn undrunarlegi, rádgjafi, hinn máttugi sterki Gud, fadir eilífdarinnar, fridarhøfdíngi." 6. Hans veldi skal æ fara vaxandi, og fridurinn skal aldrei enda taka á Davíds hásæti og í hans Konúngsríki, því er hann mun efla og styrkja med dómi og réttvísi (réttvísum dómi) hédan í frá og til eilífrar tídar. Ástríki Drottins allsherjar mun slíku til vegar koma.

V. 12. *a.* Samband, her er talad um samband Sýrlendinga og Israelsmanna gégn Júdaríki. V. 19. *b.* Sjá 1 Sam, 28, 7 — 19. *c.* Umla þ. e. hafa galdralati og seidlæti.

7. Hinn Alvaldi hefir sendt ord Jakobs nid-
jum, og þad mun nidur koma á Ísraelsmønn-
um. 8. Allt landsfólkid skal verda þess áskyn-
ja, Efraimsætt og innbyggjendur Samaríu, sem
af metnadi og dramblæti segja: 9. „tígulstein-
arnir eru nidurfallnir, en vér viljum byggja
upp aptur af høggnu grjóti, mórberfíkjutrén
eru upprætt, en vér viljum setja sedrustré í
stadinn." 10. Þess vegna mun Drottinn efla
mótstødumenn Rezíns a) á hendur þeim, og
vopna óvini þeirra, 11. Sýrlendínga ad aust-
an og Filistea ad vestan, og þeir skulu svelgja
Ísraelslýd opnum munni. Allt fyrir þad linn-
ir ekki reidi hans, og hans hønd er enn þá
útrétt. 12. Því fólkid snýr sér ekki til hans,
sem tiptar þad, þad leitar ekki Drottins alls-
herjar. 13. Þess vegna mun Drottinn af-
høggva høfud og hala Ísraelsmanna, pálma-
kvistinn og sefreyrinn á sama degi. 14. Valds-
mennirnir og virdíngamennirnir, þeir eru høfud-
id, spámenn þeir, er kénna lygar, eru halinn.
15. Því leidtogar þessa fólks leida þad afvega,
og þeir, sem láta þá leida sig, tortýnast. 16.
Þess vegna gétur hinn Alvaldi einga gledi haft
af æskumønnum þeirra, og ekki verid munad-
arleysíngjum og ekkjum þeirra miskunsamur;
því þeir eru allir gudlausir og vondir, og hvørr
munnur talar þad, sem svívirdilegt er. Med
øllu þessu rénar ekki reidi hans, og enn þá er
hans hønd útrétt. 17. Því hid ógudlega athæfi
brennur, einsog eldur sá, er eydir þyrnum og
þistlum og kveykir í þykkvum skógarrunnum,
svo þeir hvirflast upp í reykmokk. 18. Land-
id stiknar af reidi Drottins allsherjar; fólkid
verdur sem eldsmatur, og einginn vægir ødrum.
19. Menn rífa í sig til hægri handar, og eru
þó húngradir: þeir eta um sig til vinstri hand-
ar, og verda þó eigi saddir. Hvørr etur hold-
id af sínum eigin armlegg. 20. Manassis
ættkvísl er upp á móti Efraimsætt, og Efra-
imsætt móti Manassisætt, og þær bádar sam-
an móti Júda ættkvísl. Med øllu þessu rén-
ar ekki reidi hans, og hans hønd er enn þá útrétt.

## 10. Kapítuli.

*Ránglæti Gydínga. Ofdramb og hegníng Assyrín-manna.*

1. Vei þeim, sem veita ránga úrskurdi og
óréttvís atkvædi, 2. til þess ad halla réttar-
fari fátækra, og ræna løgum hina voludu á
medal míns fólks, til þess ad ekkjurnar verdi
þeim ad herfángi, og hinir munadarlausu ad
brád! 3. Hvad viljid þér til gjøra á hegn-
íngardeginum, þegar eydileggíngin ad kémur úr
fjarska vofeiflega? Til hvørs viljid þér þá flýa
um ásjá? og hvar viljid þér geyma audæfi
ydar? 4. Þau géta ekkért af sér gjørt, nema
ad hneppa sig undir hina fjøtrudu, og leggjast
undir valinn. Med øllu þessu rénar eigi reidi
hans, og hønd hans er enn þá útrétt.

5. Vei Assyríukonúngi, þeim vendinum minn-
ar reidi! Sproti sá, sem er í hendi þeirra (As-
syríumanna), þad er reidisproti minn. 6. Eg
senda hann móti andvaralausri þjód, eg baud
honum ad ræna og rupla þá þjód, hvørri eg
var reidur ordinn, og fóttroda hana sem saur
á strætum. 7. En hann áleit þetta ekki á þann
veg, heldur virdti þad fyrir sér ødruvísi, 8. og
sagdi: „eru ekki høfdíngjar mínir allir saman
Konúngar? 9. Fór ekki fyrir Kalneborg eins
og fyrir Karkemisborg? fyrir Hamatsborg eins
og fyrir Arpadsborg? fyrir Samaríu eins og
fyrir Dammaskusborg? 10. Med því eg nú hefi
komist høndum yfir ríki þeirra goda, er meiri
voru fyrir sér en Jerúsalemsgod og Samaríu-
god, 11. skylda eg þá ekki gjørt géta vid Jerú-
salemsborg og hennar gudi, þad sama sem eg
gjørdi vid Samaríu og hennar god?" 12. En,

V. 10. a. Mótstødumenn Rezíns, (7, 1), þ. e. Assýríumann.

þegar hinn Alvaldi hefir framkomid fyrirætlan sinni á Síonsfjalli og í Jerúsalemsborg, þá mun eg (segir Drottinn) géfa gjætur ad því, sem leidt hefir af ofdrambi Assyríukonúngs og af hinu hrokafulla yfirlæti hans, 13. er hann segir: „med styrk handar minnar og med vitur-leik mínum hefi eg þessu til leidar komid, því ad eg em hyggindamadur. Eg hefi fært úr stad landamerki þjódanna, rænt fjárhlutum þeirra, og fleygt innbyggendunum nidur, eins og sterkur uxi. 14. Eg hefi tekid upp eigur þjódanna, eins og fuglshreidur; eg hefi safnad saman øll-um løndum, eins og menn safna eggjum, þá fuglinn er floginn úr hreidrinu, án þess nokk-ur blakadi vængjum, eda lyki upp nefinu, eda tísti". 15. Þorir nokkud øxin ad dramba í móti þeim, sem høggur med henni? eda søgin ad miklast í gégn þeim, sem sagar med henni? allteins og stafurinn géti rádid vid þá, sem reida hann! eda sprotinn fái valdid því, sem ekki er af tré! a) 16. Þess vegna mun hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar, senda megrusótt á medal hans sællegu (hermanna), og loginn skal leika undir hans einvalalidi, eins og í elds-bruna. 17. Því ljósid Israelsmanna b) mun verda ad eldi, og hinn heilagi Gud þeirra ad eldsloga, og sá logi skal á einum degi uppbrenna og eyda þyrnum og þistlum hans (Assýríu-konúngs), 18. og afmá gjørsamlega c) hinn blómlega vidarskóg og aldinskóg hans, svo hann skal verda eins og sjúklíngur sá, er mornar all-ur og þornar. 19. Þau skógartré hans, sem eptir verda, skulu eigi fleiri vera en svo, ad hvørt barnid skal meiga telja þau.

20. Á þeim degi skulu þeir, sem eptir verda af Israelsmønnum, og afkomast af Jakobs nid-jum, ekki framar reida sig á þann, sem sló þá d) heldur munu þeir trúfastlega reida sig á Drott-inn, hinn heilaga Israels Gud. 21. Nokkur-ar eptirleifar, sem eptir verda af Jakobs nidjum, skulu aptur hverfa til Guds hins almáttuga. 22. Því þó fólksfjøldi þinn, Israelslýdur, væri sem sjáfarsandur, skulu þó ad eins nokkurar leifar hans aptur hverfa. Eydileggíngin er ályktud, og reididómurinn mun yfir dynja; 23. því hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar, mun láta eydileggínguna og reididóminn gánga yfir gjør-vallt landid. 24. Þar fyrir segir hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar, svo: óttast eigi, þú minn lýdur, sem býr á Síonsfjalli, fyrir Assyríu-konúngi, sem sló þig med sprota, og reiddi ad þér staf sinn, eins og Egyptar (fordum). 25. Því ekki mun á laungu lída, ádur reidi minni og heipt linnir vid eydileggíngu þeirra e). 26. Þá mun Drottinn allsherjar reida svipu á lopt yfir þeim, eins og þegar Midíansmenn bidu ó-sigurinn (Dóm. 7) hjá Orebs kletti (Dóm 7, 25), og eins og þegar hann hóf staf sinn yfir hafid, og sló Egyptalandsmenn. 27. Þá skal byrdi sú, sem hann (Assyríukonúngur) hefir lagt á herdar þér, ofan falla, og ok hans af hálsi þínum; og okid skal brotna af ofurstyrk ux-ans f). 28. Hann (Assyríukonúngur) heldur til Ajatsborgar, fer fram hjá Mígronsborg, og leggur upp farángur sinn í Mikmasborg. 29. Þeir fara yfir skardid, og hafa náttból í Geba-borg. Ramaborg skélfur, og Gíbeaborg, sem kénd er vid Sál, tekur á flótta. 30. Hljóda þú upp, Gallimsborgar mær! Taktu eptir því, Laísaborg! Æ hina ógjæfusømu Anatotsborg! 31. Madmenaborg flýr, innbyggjendur Gebims-borgar hørfa undan. 32. Sama dag kémur hann til Nóbsborgar, og ægir þar; og nú rétt-ir hann hønd sína móti Síonsfjalli og móti

V. 15. *a.* Því sem ekki er af tré, þ. e. manninum, sem á sprotanum heldur. V. 17. *b.* Samanbr. 60, 1. 2 Mós. 13, 21. V. 18. *c.* Gjørsamlega, á hebr., „frá sálu og allt til holds". V. 20. *d.* Þann sem sló þá, þ. e. Assyríu Konúng. V. 25. *e.* Þeirra, þ. e. Assyríumanna. V. 27. *f.* Af ofurstyrk uxans, á hebr. „af feiti".

hædum Jerúsalemsborgar. 33. En, sjá þú! hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar, hann afsnídur laufkvistuna voseiflega: hin hávøxnu trén verda upprætt, og hin gnæfandi hníga til jardar. 34. Hann rydur skógarrunnana med eggjárni, og Líbanons skógur fellur fyrir hinum volduga.

## 11. Kapituli.

Spádómur um Frelsarann og hans ríki, og um frelsun Gydíngalýds.

1. En af stofni Isaí mun kvistur fram spretta, og ángi uppvaxa af rót hans. 2. Yfir honum mun hvíla andi Drottins, andi vísdóms og skilníngs, andi rádspeki og kraptar, andi þekkíngar og ótta Drottins. 3. Þad mun hans unun vera, ad óttast Drottinn; hann mun ekki dæma eptir því sem hans augu sjá, og ekki úrskurd veita eptir því, sem hans eyru heyra: 4. med réttvísi mun hann dæma hina fátæku, og unna réttra laga hinum naudstøddu í landinu. Hann mun ljósta jørdina med sprota síns munns, og deyda hina ógudlegu med andanum sinna vara. 5. Réttlætid mun vera belti hans lenda, og trúfestin belti hans mjadma. 6. Þá mun úlfurinn búa hjá lambinu, og pardusdýrid liggja hjá kidlíngnum; kálfar, ljónskálfar og alifé gánga saman, og smásveinn leida þau. 7. Kýrin og bjarndýrid munu vera á beit saman, og kálfar og húnar liggja hvorir hjá ødrum; ljónid mun hey eta, sem naut. 8. Brjóstmylkíngurinn mun leika sér vid holudyr nødrunnar, og þad barn, sem nývanid er af brjósti, mun stínga hendi sinni inn í bæli hornormsins. 9. Hvørgi á mínu heilaga fjalli munu þau nokkurt mein eda skada gjøra; því jørdin er full af kynníngu Drottins, eins og sjáfardjúpid er vøtnum hulid. 10. Þá skal rótarkvistur Isaí standa sem hermerki fyrir þjódirnar; þær munu leita hans atkvæda, og hans bústadur mun dýrdlegur vera. 11. Þá mun hinn Alvaldi útrétta hønd sína í annad sinn, til þess ad endurkaupa þær leifar síns fólks, sem eptir eru í a) Assýralandi og Egyptalandi, í Patroslandi, Blálandi og Elamslandi, í Sinearslandi og Hamatsborg, og í hinum fjarlægustu strandbygdum. 12. Hann mun upp setja merki fyrir þjódunum, heimta saman hina útreknu Israelsmenn, og samansafna hinum tvístrudu Júda-nidjum frá fjórum høfudáttum jardarinnar. 13. Þá mun øfund Efraimsættar hverfa, og óvinir Júdaríkis manna undir lok lída; Efraimsætt mun ekki øfundast vid Júdaættkvísl, og Júda ættmenn ekki amast vid Efraims ættmønnum. 14. Þeir munu steypa sér nidur á Filistealand gégn vestri, og ræna í sameiníngu Austurvegsmenn. Edomsmenn og Móabsmenn skulu verda þeim ad hérfángi, og Ammonsmenn lýdskyldir þeim. 15. Og Drottinn mun lýsa banni yfir vogum Egyptahafs, og í ákéfd síns anda b) bregda hendi sinni yfir Fljótid, og skipta því í sjø kvíslir, svo þar skal mega yfir gánga med skó á fótum. 16. Þannig skal brautarvegur verda fyrir þær leifar fólks hans, sem enn eru eptir í Assýralandi, eins og (fyrr meir) vard fyrir Israelsmenn, þá þeir fóru út af Egyptalandi.

## 12. Kapituli.

Lofsaungur Gydíngalýds.

1. Á þeim degi skaltu segja: „eg vegsama þig, Drottinn, fyrir þad, ad þó þú værir mér reidur, þá er þó horfin reidi þín, svo ad þú huggar mig nú. 2. Sjá! Gud er minn frelsari; eg em øruggur og óttast ekki, því Gud

V. 1. Isaí, fadir Davíds, stofn Isaí, eptirleifar Davíds ættar. V. 11. a. Sjá v. 16. V. 15. b. Lýsa banni yfir vogum Egyptahafs, svo þeir þorni upp og verdi færir yfirferdar; í ákéfd síns anda, adrir útleggja „med sterkum stormi". Fljótid, Evfrat.

Drottinn er minn styrkur og mitt lofkvædi:
hann kom mér til hjálpar". 3. Þér munud
med fagnadi vatn ausa af uppsprettum hjálp-
rædisins, 4. og þá munud þér segja: „lofid
Drottinn, ákallid hans nafn, kunngjørid hans
verk medal þjódanna, sýngid honum lof, því
háleitt er hans nafn. 5. Lofsýngid Drottni,
því hann hefir gjørt þad dýrdarverk, sem
kunnugt skal verda í øllum løndum. 6. Fagna
lofsýngjandi, þú (borg)! sem situr á Sions-
fjalli, því hinn heilagi Israels Gud hefir sýnt
sinn mikilleik á þér!"

## 13. Kapítuli.

Spádómur um eydileggíngu Babels borgar.

1. Spádómur um Babelsborg, opinberad-
ur Esajasi Amossyni.

2. Setjid upp merki á einhvørju háfu fjalli!
kallid hárri røddu til þeirra! bandid þeim med
hendinni ad gánga inn um hlid høfdíngjanna!
3. Eg hefi gjørt bod þeim, sem eg hefi þar
til ætlad a), eg hefi kallad á kappa mína, hina
mikillátu gladværdarmenn mína b), til ad fram-
kvæma reididóm minn. 4. Á fjøllunum heyr-
ist þys af mannmergd, eins og einhvør fjøl-
menn þjód komi; þad heyrist hár gnýr Kon-
úngaríkja og samansafnadra þjóda: þad er
Drottinn allsherjar, sem er ad kanna herlid
sitt. 5. Þeir koma frá fjarlægum landsálf-
um, frá himins enda, þad er Drottinn og
verkfæri reidi hans, sem ætlar sér ad eydilegg-
ja gjørvallt landid. 6. Kveinid, því dagur
Drottins er nálægur; hann kémur sem eydi-
legging frá hinum almáttuga. 7. Þess vegna
verda allar hendur lémagna, og hjarta sér-
hvørs manns brádnar. 8. Þeir skélfast, harm-
kvæli og pína gagntekur þá; þeir kénna til,
eins og jódsjúk kvinna; hvørr þeirra horfir
ángistarfullur á annan: andlit þeirra eru sem
eldslogar. 9. Sjá! dagur Drottins kémur,
hinn hrædilegi dagur heiptarinnar og ennar
brennandi reidi, til ad gjøra landid ad audn,
og til ad afmá þá afbrotamenn, sem í því búa.
10. Því himintúnglin og stjørnuflokkarnir missa
birtu sína: sólin er myrk í uppgaungu sinni,
og túnglid lætur ei ljós sitt skína. 11. Eg
vil hegna jardarkrínglunni søkum hennar vondsku,
og hinum ógudlegu søkum misgjørda þeirra;
eg vil nidurkéfja ofdramb hinna ríkilátu, og læg-
ja hroka ofbeldismannanna. 12. Eg vil gjøra
karlmenn sjaldfeingnari enn skíragull, og mann-
fólkid torgætara enn Ofírs-gull. 13. Þess
vegna vil eg hrista himininn, og jørdin skal
hrærast úr stødvum sínum fyrir heipt Drott-
ins allsherjar, og á degi hans brennandi reidi.
14. Eins og fæld skógargeit, og eins og smala-
laus hjørd, skal hvørr madur hverfa aptur
til átthaga sinna; og hvørr einn flýa heim í
land sitt. 15. Hvørr, sem stadinn verdur,
mun lagdur verda í gégn, og allir, sem hand-
samadir verda, munu fyrir sverdi falla. 16.
Úngbørnum þeirra mun slegid verda nidur vid,
hús þeirra verda rænd, og konur þeirra smán-
adar. 17. Sjá! eg æsi upp Medíumenn í
gégn þeim: þeir hugsa ekki um silfrid, og þá
lángar ekki í gullid; 18. bogar þeirra rota
únga menn til dauds: þeir vægja ekki lífsaf-
kvæmum, og líta ekki miskunaraugum til úng-
barna. 19. Þannig skal Babelsborg, sem
hefir verid prýdi Konúngaríkjanna, og sem
Kaldear hafa stært sig og miklast af, verda
eins og Sódómsborg og Gómorraborg, hvør-
jum Gud umturnadi. 20. Hún skal aldrei
verda byggileg aptur; mann fram af manni skal
þar einginn búa; einginn arabiskur madur skal
slá þar tjøldum sínum, og aungvir hjardmenn

V. 3. *a.* Þeim, sem eg hefi ætlad, útvalid til ad framkvæma ásetníng minn; á hebr. „minum helgudu". *b.* Svo kall-
ast hermenn Drottins (Persar), hvørjum hann hafdi géfid øruggann hugmód til ad reka sitt erindi.

bæla þar fénad sinn. 21. Urdarkéttir skulu þar liggja; húsin skulu full vera af uglum; strútsúngar skulu búa þar, og skógartrøll støkkva þar. 22. Gullúlfar skulu kallast á í høllunum, og refkeilur í hinum lystilegu herbergjunum. Hennar hegníngartími er ad eins ókominn, og óhamíngju dagar hennar munu eigi undan dragast.

## 14. Kapítuli.

*Frelsun Gydínga; lofsaungur yfir eydileggíngu Babelsborgar. Spádómur um Asýrín Konúng (Senakerib). Spádómur móti Filisteum.*

1. Því Drottinn elskar Jakobs nidja, og er enn unnandi Israelsmønnum. Hann mun flytja þá inn í land þeirra, og útlendir menn munu sameinast þeim, og leggjast á eitt med Jakobs nidjum. 2. Þjódirnar munu flytja þá, og koma þeim til átthaga sinna; en Israels nidjar munu eignast þá ad þrælum og ambáttum í landi Drottins, svo ad þeir munu hertaka hertakendur sína og drottna yfir yfirdrottnendum sínum.

3. Þegar Drottinn hefir veitt þér hvíld af þinni armædu og ónædi, og hinni hørdu ánaud, sem á þig var løgd, 4. þá muntu kirja upp þetta kvædi um Babels Konúng, og segja: hvørnig er kúgarinn nidurbældur, og yfirgángurinn sefadur? 5. Drottinn hefir sundurbrotid barefli hinna ógudlegu, og staffsprota yfirdrottnaranna, 6. sem sló þjódirnar í brædi med þeim sløgum, er aldrei linntu, og drottnadi yfir fólkinu í reidi med vægdarlausri ofsókn. 7. Nú hefir øll jørdin ró og hvíld; allir láta til sín heyra fagnadarsaung. 8. Furutrén gledjast jafnvel yfir þér, og sedrustrén í Líbanonsskógi (segja): "fyrst þú er løgst fyrir, þá mun einginn stíga upp híngad til ad upphøggva oss". 9. Undirheimur fer á kreik til móts vid þig, þá þú kémur. Hann heitir á vofurnar, á alla høfdíngja jardarinnar, og býdur øllum Konúngum þjódanna ad standa upp af hásætum sínum. 10. Þeir taka allir til orda, og segja til þín: þú ert þá einnig ordinn máttvana, eins og vér; þú ert ordinn vor jafníngi. 11 Ofmetnadur þinn er nidur varpadur í undirheima, ásamt med hljóminum þinna harpna; ormarnir eru breiddir undir þig, og madkarnir ofan á þig. 12. Hvørnig ertu af himni ofan fallin, þú hin fagra morgunstjarna? Hvørnig ertu til jardar nidur hrundinn, þú sem varla virdtir þjódirnar vidlits? 13. Þú sagdir í þínu hjarta: „eg vil upp stíga til himins, upp yfir stjørnur Guds vil eg setja hásæti mitt, eg vil setjast ad á samkundufjallinu leingst uppi í nordri. 14. Eg vil upp stíga á hædir skýanna, og líkur verda hinum allrahæsta". 15. Þú ert þó nidur kastadur í hin innstu fylskni í undirheimi. 16. Þeim, sem sjá þig, verdur starsýnt á þig, þeir virda þig fyrir sér (og segja): er þetta madurinn, sem skók jørdina og skélfdi Konúngaríkin? 17. sem gjørdi jardarkrínglunа ad eydimørk, braut nidur borgir hennar, og gaf ekki heimfararleyfi þeim, er hann hafdi til bauda tekid? 18. Allra þjóda Konúngar liggja þó allir, virdulega grafnir, hvørr í sínum legstad; 19. en þú ert burtsnaradur ógrafinn, eins og audvirdilegur kvistur; þú ert þakinn daudra manna búkum, þeirra er med sverdi hafa verid gégnumstúngnir og lagdir nidur í steinþrórnar, eins og fóttrodid hræ. 20. Þú skalt eigi grafinn verda, eins og adrir Konúngar, því þú hefir lagt land þitt í eydi, og drepid nidur fólk þitt. Afspreingi ógudlegra skal ekki nefnt verda á nafn ad eilífu. 21. Brytjid nidur afkomendur hans, fyrir misgjørda sakir fedra þeirra, svo þeir fái ekki á legg risid til þess ad brjóta undir sig jørdina og fylla yfirbord heimskrínglunnar med (herteknum) borgum! 22. Eg vil upp rísa í gégn

þeim, segir Drottinn allsherjar, og afmá nafn
Babelsborgar, og það sem eptir er, bæði børn
og barnabørn, segir Drottinn. 23. Eg vil
gjøra hana að íglabæli og að støðutjørn, og
sópa henni burt með sópi eyðileggíngarinnar,
segir Drottinn allsherjar.

24. Drottinn allsherjar sór, og sagði: í sann=
leika skal það verða, sem eg hefi fyrirhugað,
og það, sem eg hefi ráð fyrir gjørt, skal fram
koma. 25. Eg skal sundur brjóta Assyríukon=
úng í landi mínu, og niðurtroða hann á mínum
fjøllum, og þá skal það ok, og sú byrði, sem
hann hefir þeim (Israelsmønnum) á herðar
lagt, ofan falla. 26. Þessi er sú ráðstøfun,
sem áformuð er yfir øllum løndum, og þessi er
sú hønd, sem útrétt er yfir allar þjóðir. 27.
Því Drottinn allsherjar hefir þessu ráðstafað:
hvørr vill ónýta það? Hans hønd er útrétt:
hvørr vill aptra henni?

28. Þessi spádómur var (kunngjørður) sama
árið, sem Akas konúngur andaðist: 29. Gleðst
eigi, þú gjørvallt Filistealand, yfir því, þó sá
stafsproti, sem sló þig, sé í sundur brotinn, því
út af rót høggormsins mun hornormur koma,
og ávøxtur hans verða flugdreki. 30. Hinir
allra lítilmótlegustu skulu hafa nóg viðurværi,
og fátæklíngarnir hvílast óttalausir, meðan eg
læt rót þína deya út af húngri, og meðan hann
(hornormurinn) drepur það, sem eptir verður af
þér. 31. Kveinið, þér borgarhlið! Hljóða, þú
borg! Gjørvallt Filistealand, þú æðrast; því
mokkur kémur úr norðurátt: sú þyrpíng fer ekki
sundurlaus. 32. Og hvørju skal þá svara sendi=
mønnum þjóðarinnar? — Að Drottinn sé grund=
vøllur Síonsborgar, og að hans fólk leiti sér
hælis í henni. —

## 15. Kapítuli.

Spádómur gégn Móabslandi.

1. Spádómur um Móabsland. Á náttarþeli
verður herjað á Arborg í Móabslandi, og hún
løgð í eyði; á náttarþeli verður herjað á Kírborg
í Móabslandi, og hún løgð í eyði. 2. Baits=
borg og Díbonsborg stíga upp á hæðirnar til
að gráta. Móabsland kveinar sáran yfir Ne=
bóborg og Meðbaborg; hvørt høfuð í landinu,
er hárlaust, og allt skégg afrakað. 3. Á borg=
arstrætunum gánga menn í sorgarbúníngi;
uppi á þøkum og á torgum borgarinnar
kveinar allur borgarlýðurinn, fljótandi í tár=
um. 4. Hesbonsborg og Elaleborg hljóða,
og óp þeirra heyrist til Jahasborgar; þess vegna
bera hermennirnir í Móabslandi sig aumkvunar=
lega, þeim er horfinn hugur. 5. Mér gánga
til hjarta raunir Móabsmanna: flóttamenn þeirra
flýa til Sóarsborgar, til Eglat=Selísaborgar,
þeir fara upp til Lúkitsborgar grátandi, og á
veginum ofan til Hórónaimsborgar æpa þeir af
ángist; 6. því Nimrims vøtn eru orðin að øræf=
um, grasið visnað, úngjurtirnar eyddar, allt
grængresi horfið. 7. Þess vegna flytja þeir
burt það, sem eptir hefir orðið, og fjármuni sína
til Araba=dals; 8. því neyðarkveinið gengur
yfir gjørvallt Móabsland, ópið heyrist allt til
Eglaims, hljóðið berst allt til Ber=Elims. 9.
Vøtn Dímonsborgar eru full af blóði, og enn
vil eg leggja Dímonsborg meira til í viðbót,
(og senda) ljón yfir þá, sem undan komast af
Móabsmønnum, og yfir þá, sem eptir verða í
landinu.

---

V. 29. Usias, Konúngur í Júdaríki, hafði brotið undir sig Filistealand, (2 Kron. 26, en Filistear brutust aptur undan Akasi Konúngi, og gjørðu miklar óspektir í Júdaríki, (2 Kron. 28, 18); Esekías Konúngur vann bug á þeim aptur, (2 Kóng: 18, 8). Stafsprotinn og Høggormurinn merkir Usías Konúng, en hornormurinn og flugdrekinn Esekías Konúng. V. 31, Mokkur, þ. e. manngrúi, herlið. V. 1. Arborg, sama sem Rabba, høfuðborg í Móabslandi.

## 16. Kapítuli.

Framhald.

1. Sendid landshøfdíngjanum a) lamba-
skattinn frá Selaborg, gégnum eydimørkina til
Síonsfjalls. 2. Eins og fuglinn fløgtir í
kríng, þegar hann er rekinn upp af hreidri sínu,
eins eru Móabsdætur, þar sem þær standa vid
Arnons vød (og segja): 3. „legg nú einhvør
gód rád (þú, Síonsborg!), gjør nú gott verk,
og lát skugga þinn um middeigid verda sem
nótt; fel útlagana, seg ekki til flóttamannanna;
4. ljá oss útløgunum, Móabsmønnum, dvøl
hjá þér, vert þeirra verndarskjól fyrir ofríkis-
manninum, því þá mun ekkért verda úr kúgar-
anum, þá mun ofríkinu linna, og landid frels-
ast frá undirokun. 5. Þá mun Konúngs há-
sætid b) grundvallad verda á miskunsemi, og
þá skal sá dómari, sem leitar réttinda og eflir
réttlætid, sitja í því sæti í tjaldbúd Davíds".
6. „Vér þekkjum drambsemi Móabsmanna, ad
þeir eru mjøg hrokafullir, vér þekkjum þeirra
metnad, ofsæti, ofdramb og marklausu stór-
yrdi". 7. Þessvegna er nú svo komid, ad hvørr
Móabsmanna verdur ad kveina fyrir ødrum.
Allt Móabsland verdur ad kveina. Yfir und-
irstødum Kírhaserets borgar hljótid þér ad
andvarpa sorgmæddir. 8. Akurlønd Hes-
bonsborgar eru følnud. Høfdíngjar þjódanna
hafa sundur brotid víntré Sibmaborgar: grein-
ar þess nádu allt til Jasersborgar og kvísslud-
ust út um alla eydimørkina, ángar þess breiddu
sig út yfir hafid. 9. Þess vegna græt eg
føgrum tárum yfir Jasersborg, yfir víntré
Sibmaborgar. Eg vøkva þig med tárum mín-
um, Hesbonsborg og Elaleborg, því fagnadar-
ópid yfir þínum sumarsgróda og þinni upp-
skéru er ordid ad hérópi. 10. Føgnudur og
kæti er horfin frá aldinmørkinni; í víngørdun-
um heyrast aungvir saungvar, né fagnadar
hljód; trodslumadurinn tredur ekki vínberin í
vínþrúgunni, eg hefi gjørt enda á gledilátum
hans. 11. Þess vegna hljómar í hjarta mínu,
eins og í hørpu, søkum Móabslands, og í
brjósti mínu, søkum Kírharesborgar. 12. Og
þó ad Móabslýdur gángi sig módan upp á
blóthædirnar, og fari inn í helgidóm sinn til ad
bidjast fyrir, þá mun hann samt eingu til leid-
ar koma. 13. Þetta er þad, sem Drottinn
taladi í gégn Móabslandi fyrrum; 14. en nú
talar Drottinn á þessa leid: ad þriggja ára
fresti, slíkra sem ár daglaunamanna eru talin c),
skal mannval Móabslands og allur hinn mikli
fólksfjøldi þess rýrna, svo ekki skal eptir verda
nema fátt eitt, og þó lítilfenglegt.

## 17. Kapítuli.

Spádómur um afdrif þeirra tveggja sambandsríkja, Sýrlands og Israelsríkis, og um hernad Assýríumanna á Júdaríki.

1. Spádómur um Dammaskusborg. Sjá!
Dammaskusborg skal verda afmád, svo hún skal
ekki vera borg framar: ad nidurhruninni grjót-
hrúgu skal hún verda. 2. Stadirnir í kríng
um Aróersborg skulu verda yfirgéfnir, og ad
beitarlandi handa fénadarhjørdum; þar skulu
þær liggja, án þess nokkur styggi þær. 3. Þá
skal varnarvirki Efraimsættar d) undir lok lída,
og Konúngdómurinn hverfa frá Dammaskus-
borg og ødrum Sýrlandsborgnm; þad skal
fara fyrir þeim eins og fer fyrir mannvali
Israelslýds, segir Drottinn allsherjar.

4. Þá mun mannval Jakobs nidja e) fækka,

V. 1. *a*. Júdaríkis Konúngi; ádur fyrr høfdu Móabsmenn goldid Israels Konúngi lømb í skatt, (2. Kóng. 3, 4). V. 2. Arnon, takmarkafljót milli Móabslands og Júdaríkis. V. 5. *b*. Nefnilega, í Júdaríki. V. 6. Þetta er svar Júdaríkismanna til Móabsbætra, (16, 2). V. 14. *c*. Þ. e. rétt ad þriggja ára fresti, hvørki fyrr, né seinna; ár dag-launamanna eru talin svo nákvæmlega, ad ekki skeikar einum degi. V. 3. *d*. Þ. e. Syrland, hvar Israelsmenn høfdu leitad trausts. V. 4. *e*. Jakobs nidja, þ. e. innbúa Israels ríkis.

og þróttur þeirra gánga til þurdar. 5. Þá mun fara líkt og þegar kornskérumadur safnar kornstaungum á akri, og armleggur hans affnídur axin; og eins og þegar ax eru tínd í Refaimsdal. 6. Þad sem eptir verdur af þeim (Ísraelsmønnum), skal verda sem eptirtíníngur, eins og þá vidsmjørstré er skékid, og tvø eda þrjú vidsmjørsber verda eptir efst í laufinu, eda fjøgur eda fimm á frjókvistum þess, segir Drottinn, Gud Ísraels. 7. Þá mun madurinn mæna eptir þeim, sem skóp hann, og renna augum sínum til hins heilaga Ísraels Guds. 8. Ekki mun hann þá mæna til godastallanna, sem eru hans eigin handaverk, og ekki líta til Astørtu líkneskja eda annara skurdgoda, sem fíngur hans hafa tilbúid. 9. Á þeim tíma munu hinir víggyrdtu stadirnir verda sem eptirleifar af skógarrunni eins og vidarhrísla, sem Ísraelsmønnum hefir verid eptir skilin; þeir skulu verda ad audn: 10. því þú hefir gleymt Gudi, frelsara þínum, og ekki minnst þess hellubjargsins, sem er þín verndarhlíf. Gródurset þú ad eins fagrar plantanir, og set útlendska vínvidarkvistu í gard þinn! 11. lát þínar plantanir vaxa sama daginn og þú gródursetur þær, lát þær blómgast sama morguninn og þú setur þær! en eptirtekjunni muntu safna á degi hryggdar og ólæknandi sorgar.

12. Æ, hvílíkur gnýr af miklum fólksfjølda! þeir gnýa, eins og hafsøldur gnýa. Hvílíkur manna dynur! þeir dynja, eins og straung vatnsføll dynja; 13. þjódirnar geisa, eins og stór vatnsføll geisa. En hann hastar á þær, og þá flýa þær lángt í burtu, og tvístrast, eins og hismi á fjøllum fyrir stormi, eins og rykmokkur fyrir hvirfilvindi. 14. Á kvøldtímanum er eydileggíngin vís, og ádur en morgnar, er allt horfid. Þetta er hlutdeild þeirra, sem ræna oss, og hlutfall þeirra, sem taka frá oss.

# 18. Kapituli.

Bodskapur til Blálendínga.

1. Heyr, þú landid vængja skuggans, sem ert þessumegin Bláland fljóta, 2. sem gjørir út sendimenn (á skipum) yfir hafid, og á reyrbátum yfir vøtnin! Farid, þér sendibodar, skyndilega til hinnar hávøxnu og ákøfu þjódar, til hinnar óttalegu þjódar, og þadan lengra framm til hinnar afarsterku þjódar, sem tredur allt undir fótum sér, yfir hvørrar land fljótin gánga. 3. Allir þér, sem jardarkrínglunа byggid og í løndunum búid, gætid ad, þegar merkid er reist á fjøllunum! Hlustid eptir, þegar lúdurinn kvedur vid! 4. Því svo hefir Drottinn sagt til mín: Eg vil halda kyrru fyrir, og líta ofan frá adseturstad mínum, eins og heidbjartur sumarsdagur í sólskini, eins og daggarský á haustríma, þegar heitt er. 5. En undir uppskéruna, þegar fræknapparnir eru ordnir alþroska og blóm vínberjavísirsins fullvaxid, þá skulu vínvidarkvistirnir verda afhøggnir med sigdum, og ángarnir burtsnídnir. 6. Þá skulu þeir allir eptirlátnir verda fuglum fjallanna og dýrum landsins; fuglarnir skulu sitja á þeim á sumrin, og øll dýr jardar liggja á þeim á veturna. 7. Á þeim tíma munu Drottni allsherjar færdar verda gjafir frá hinni hávøxnu og ákøfu þjód, frá hinni óttalegu þjód, og enn lengra ad, frá hinni afarsterku þjód, sem fóttredur adra, og yfir hvørrar land fljótin gánga; þær munu færdar verda til þess stadar, hvar Drottinn allsherjar er ákalladur, til Síonsfjalls.

# 19. Kapituli.

Spádómur um ófarir Egyptalands, og um þad, ad Egyptar og Assyríumenn muni á sídan snúa sér til Drottins.

1. Spádómur um Egyptaland. Sjá, Drott-

V. 5. Refaimsdalur (Risadalur), í Móriasfjalli hjá Jerúsalemsborg.

inn ekur á léttfæru skýi, og kémur til Egypta-
lands; hjágudir Egyptalands skélfast fyrir hans
augliti, og hjørtu Egyptskra manna renna sund-
ur í brjósti þeirra. 2. Eg vil vopna hvørn E-
gyptskan mann móti ødrum, svo ad bródir skal
berjast vid bródur, vinur vid vin, borg vid borg,
og riki vid ríki. 3. Hygginди Egyptalands
manna skulu ad aungu verda, eg vil ónýta þeirra
rádagjørdir, svo þeir skulu gánga til frétta vid
hjágudi, galdramenn, útisetukonur og kunnáttu-
menn. 4. Eg vil selja Egyptalands menn hard-
rádum drottnum á vald, og grimmur Konúngur
skal ríkja yfir þeim, segir hinn Alvaldi, Drott-
inn allsherjar. 5. Vatnid í ánni skal upp-
þorna, og fljótid (Níl) verda vatnslaust og þurt.
6. Vatnsføllin skulu grynnast, díki Egyptalands
þverra og þorna, reyrinn og sefid visna. 7.
Engjarnar med fljótinu, vid sjálfan árósinn, og
øll sádlønd vid fljótid skulu uppþorna, fjúka
burt og hverfa. 8. Þá munu fiskimennirnir
verda hryggvir; allir, sem aungli renna í fljót-
id, munu sýta, og þeir, sem leggja net í vatnid,
munu blikna. 9. Þeir sem hørinn vinna, og
vefa línid, verda sér til mínkunar. 10. Bú-
stólpi landsins skal bresta í sundur, og allir verk-
launamenn verda hugdaprir. 11. Høfdíngjarn-
ir í Sóansborg eru rádlausir; rádleggíngar
hinna vitru rádgjafa Faraós eru heimskulegar.
Hvørsu dirfist þér ad segja vid Faraó: eg em
sonur vitrínganna, og kominn af ætt fornkon-
únganna? 12. Hvar eru nú vitríngar þínir?
Lát þá nú kunngjøra þér, svo menn verdi vís-
ari, hvørja fyrirætlan Drottinn hafi med E-
gyptaland! 13. Høfdíngjarnir í Sóansborg
standa eins og afglapar, høfdíngjarnir í Nofs-
borg eru á tálar dregnir; høfudsmenn hinna
Egyptsku ættkvísla leida Egyptaland í villu. 14.
Drottinn hefir byrlad þeim sunlunar anda a),
svo þeir gjøra þad, ad Egyptaland er á reiki
í øllum þess fyrirtækjum, eins og drukkinn
madur reikar þar um, sem hann hefir spúid.
15. Ekkért skal Egyptalandi heppnast af því,
sem ædri menn eda lægri, meira eda minna
háttar menn b) taka sér fyrir hendur ad gjøra.
16. Á þeim degi skulu Egyptskir menn vera
sem konur, hræddir og skjálfandi fyrir reiddri
hønd Drottins allsherjar, þegar hann hefir
hana á lopti uppi yfir þeim.

17. Þá skal Egyptalandi standa sá ótti af
Júdalandi, ad sérhvørr, sem heyrir þess getid,
skal skjálfa af hrædslu fyrir þeirri rádstøfun,
sem Drottinn allsherjar hefir ályktad yfir land-
inu. 18. Á þeim tíma munu fimm borgir í
Egyptalandi, tala á Kanverska túngu, og sverja
vid Drottinn allsherjar; ein af þeim borgum
skal nefnast frelsunarborg. 19. Á þeim tíma
mun altari Drottins standa í midju Egyptalandi,
og minnisvardi Drottni til heidurs vid takmørk
landsins. 20. Þad skal vera til teikns og vitn-
isburdar í landi Egyptskra manna, um Drottinn
allsherjar; því þegar þeir kølludu á Drottinn til
hjálpar sér í gegn ofríkismønnunum, þá sendi
hann þeim hjálparmann og fyrirlida, og frels-
adi þá. 21. Drottinn mun kunnur verda E-
gyptalands mønnum, og Egyptskir menn munu
læra ad þekkja Drottinn á þeim degi; þeir
munu fórna sláturfórnum og matfórnum,
vinna Drottni heit og gjalda þau. 22. Drott-
inn slær Egyptalandsmenn, en eins og hann
slær þá, eins grædir hann þá; þegar þeir
snúa sér til Drottins, mun hann bænheyra þá,
og lækna þá. 23. Þá skal brautarvegur legg-
jast frá Egyptalandi til Assýralands; Assýríu-
menn skulu koma til Egyptalands, og Egypt-
ar til Assýralands; og Egyptar skulu þjóna
Assýríumønnum c). 24. Á þeim tíma munu

V. 14. *a.* Þ. e. gjørt þá truflada og rádlausa. V. 15. *b.* á hebr. „høfudid og halinn, pálmakvisturinn og sefreyrinn", eins og 9, 13. V. 23. *c.* adrir útleggja: „og Egyptar skulu þjóna (Gudi) ásamt med Assyríumønnum.

Egyptalandsmenn, Assýríumenn, og Israelsmenn hinir þridju, vera blessadar þjódir á jørdu; 23. því Drottinn allsherjar mun blessa þá, og segja: „blessad vertú, mitt fólk, þér Egyptalandsmenn! og þú, verkid minna handa, þér Assýríumenn! og þú, mín arfleifd, þér Israelsmenn"!

## 20. Kapítuli.

Spádómur um herleidíngu Egyptalandsmanna og Blálendínga til Assýralands.

1. Á því ári, sem Tartan, er Sargon Assýra Konúngur hafdi sendt, kom til Asdodsborgar, herjadi á hana og vann hana, 2. um þær mundir taladi Drottinn til Esajasar Amossonar, og sagdi: Far og leys af þér hárklædid, og drag skó þína af fótum þér. Hann gjørdi svo, og gékk ysirhafnarlaus og berfættur. 3. Þá sagdi Drottinn: Eins og Esajas, þjón minn, gengur yfirhafnarlaus og berfættur, til teikns og fyrirmyndunar (um þad, sem fram skal koma) vid Egyptalandsmenn og Blálendinga ad þriggja ára fresti, 4. eins skal Assýríu Konúngur burtflytja Egyptalandsmenn í herleidíngu, og Blálendínga, únga sem gamla, í útlegd, yfirhafnarlausa og berfætta, med berri blygdun, Egyptalandsmønnum til smánar. 5. Þá munu adrir skélfast og skammast sín vegna Blálendínga, sem voru þeirra athvarf, og vegna Egyptalandsmanna, af hvørjum þeir stærdu sig. 6. Þá munu þeir, sem hér búa á þessari strønd, taka svo til orda: „sjá! þetta er nú ordid úr athvarfi voru, sem vér ætludum ad flýa í oss til hjálpar, til þess ad frelsast undan Assýríu Konúngi! Hvørsu fáum vér nú fordad oss?"

## 21. Kapítuli.

Spádómur um eydileggíngu Babelsborgar; um Idúmeu; um Arabíu.

1. Spádómur um vatna a) øræfin. Eins og fellibyljir detta á úr sudri, eins kémur hann b) úr eydimørkinni, hinu óttalega landinu. 2. Ógurleg er sú sýn, sem mér hefir birtst:" Ræníngirinn rænir, herjandinn herjar! Farid upp þángad, þér Elamsmenn! Gjørid honum umsátur, þér Medíumenn! Eg vil enda gjøra á allri andvarpan." 3. Þess vegna eru lendar mínar gagnteknar af kvøl; sárir verkir hremma mig, einsog jódsóttin, sængurkonuna. Eg eingist saman, svo eg heyri ekkért, eg er svo trufladur, ad eg sje ekkért. 4. Hjarta mitt er á fløgti; skélfíng hefir yfirfallid mig skyndilega; mig hryllir vid því kvøldinu, sem eg þrádi eptir. 5. Bordin eru sett fram, allsnægtir frambreiddar; menn eta og drekka; — „Rísid upp hershøfdíngjar, smyrjid skjølduna!" 6. Því svo sagdi Drottinn til mín: Far, og set út vørd, sem segi, hvad hann sjer. 7. Vardmadurinn sá reidmenn koma rídandi, tvo og tvo, á hestum, øsnum og úlføldum. Hann gjætti ad þeim vandlega og med miklu athygli. 8. Sídan kalladi hann, eins (hátt) og ljón: eg var, Drottinn, alltaf á daginn uppi á sjónarleitinu, og stód á verdi mínum allar nætur. 9. Og sjá, þar komu reidmenn rídandi á hestum, tveir og tveir. Þá tók hann til orda og sagdi: hún er fallin, Babelsborg er fallin, og allar hennar godalíkneskjur liggja sundurbrotnar á jørdunni. 10. „Hún er sundurþreskt af mér, og barin á mínum kornláfa". Þad sem eg hefi heyrt af Drottni allsherjar, Israels Gudi, þad hefi eg kunngjørt ydur.

11. Spádómur um Dúmaland. Einhvør kallar til mín ofan af Seirsfjalli: vøkumadur, hvad lídur nóttunni? hvad lídur nóttunni, vøkumadur? 12. Vøkumadur svaradi: „morgun er kominn, og þó er nótt. Ef þér viljid spyrja, þá spyrjid; komid aptur, komid!"

13. Spádómur um Arabíu. Þér sem farid

V. 1. *a.* Vatna øræfin, Babelsland; *b.* hann, óvinurinn, sem átti ad eydileggja Babelsborg.

lestaferdir til Dedans-manna, takid þér náttstad í skógunum í Arabíu! 14. Þér, sem búid í Tema-landi, komid út med vatn á móti þeim, sem þyrstir eru; hjálpid þeim um braud, sem farflótta er! 15. Því þeir flýa fyrir sverdum, þeir flýa undan brugdnu sverdi, undan bendum boga, undan þúngum ófridi. 16. Því svo hefir hinn Alvaldi sagt vid mig: ádur enn eitt ár er lidid, eins og ár daglaunamanna eru talin, skal lidsafli Kedarínga undir lok lída, 17. og ekki skal eptir verda nema fátt eitt af bogmønnunum, Kedars hraustu ættnidjum; því Drottinn, Gud Israels, hefir sagt þad.

## 22. Kapítuli.

Spádómur um umsátur Jerúsalemsborgar; Sebna dróttseti afsettur, og Eljakim Hilkíasson settur í stad hans.

1. Spádómur um Sjónadalinn a). Hvad gengur nú ad þér, ad þú skulir vera stíginn upp á húsþök med allt þitt? 2. Þú, sem (ádur) varst full af glaumi, hávadasøm borg og ofkætisfullur stadur! Menn þínir, sem fallnir eru, hafa ekki ordid sverdbitnir, og ekki fallid í orustu. 3. Høfudsmenn þínir eru flúnir allir saman; allir menn þínir, sem nádst hafa, eru handteknir bogalausir, og eins þeir, sem lángt hafa burtu flúid, þeir eru handteknir líka. 4. Þess vegna bid eg: látid mig kyrran b), eg vil gráta beisklega; gjørid mér ekki ónædi med því ad hugga mig yfir óførum borgar míns fólks. 5. Því dagur styrjaldar, undirokunar og úrrædaleysis er í Sjónadalnum, ad rádstøfun hins Alvalda, Drottins allsherjar. Múrveggurinn er nidur brotinn, óhljódin heyrast upp til fjalls. 6. Elams-menn bera ørvamælana, og hafa med sér vagna, menn og hesta; Kírverjar hafa tekid (vefjurnar) utan af skjøldunum. 7. Þínir fegurstu dalir eru fullir af vøgnum; riddaralidid hefir tekid sér stødu fyrir borgarahlidunum. 8. Hlíf Júdaríkis er burtnumin. Þér skygnist um á þeim degi eptir herbúnadinum í skógarhúsinu c); 9. þér skodid veggjaskørdin á Davíds borg, því þau eru mørg; þér safnid ad ydur vatninu úr nedri tjørninni; 10. þér teljid húsin í Jerúsalemsborg, og brjótid hús nidur, til ad víggyrda múrvegginn med; 11. þér búid til vatnsstædi milli beggja múrveggjanna fyrir vatnid úr gømlu tjørninni. En — þér gésid ekki gjætur ad honum, sem gjørdi þetta, þér lítid ekki til hans, sem hagadi þessu svo fyrir laungu. 12. Hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar, kallar menn á þessum degi til ad gráta og kveina, til ad reyta hár sitt og taka sorgarbúníng! 13. En sjá! hér er føgnudur og kátína! hér er verid ad drepa naut, slátra fénadi, eta kjøt og drekka vín: „látum oss eta og drekka (segja menn), því á morgun eigum vér ad deya!“ 14. Þetta er Drottni allsherjar alkunnugt. Sannarlega verdur þessi misgjørd ekki afplánud, nema þér látid lífid fyrir, segir hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar.

15. Svo sagdi hinn Alvaldi, Drottinn allsherjar: Far þú og gakk til þessa handgengna manns, til dróttsetans Sebna (og seg til hans): 16. Hvad hefir þú hér ad gjøra? Hvørr hefir vísad þér híngad, er þú lætur høggva þér hér grøf. Hann høggur sér grøf á háfum stad, og grefur sér legstad í klettinum! 17. Sjá þú! Drottinn kastar þér í burtu af afli; hann þrífur fast í þig, 18. vindur þig saman í hnoda, eins og leiksopp, og varpar þér út á vídaváng: þar skaltu deya, þar skulu þínir dýrlegu vagnar standa, þú, sem hefir svívirdt hús herra þíns. 19. Eg hrindi þér úr

V. 1. *a.* Sjónadalur, þar med er litid til Jerúsalemsborgar. V. 4. *b.* A hebr., „sjáid frá mér, horfid ekki á mig“
V. 8. *c.* Skógarhús, vopnahús, 2 Kron. 9, 16.

sæti þínu, og hann steypir þér úr þinni stétt.
20. Á þeim degi vil eg kalla á minn þjón,
Eljakim Hilkíasson; 21. eg vil færa hann í
þinn serk, gyrda hann med þínu belti, og fá
honum í hendur vald þitt; hann skal vera fadir
Jerúsalemsborgarmanna og Júdanidja. 22.
Eg vil leggja lykil Davíds húss á herdar hans;
þegar hann lýkur upp, skal enginn læsa; þeg-
ar hann læsir, skal enginn upp ljúka. 23.
Eg vil reka hann, eins og nagla, á haldgód-
an stad; og hann skal verda veglegt hásæti
fyrir hús fødur síns. 24. Á honum skal hánga
allt þad, sem veglegt er í húsi fødur hans,
allur prýdilegur og dýrmætur húsbúnadur, øll
smákér, bædi skálar og allskonar leirkér. 25.
Á þeim degi, segir Drottinn allsherjar, skal
sá nagli, sem ádur var rekinn á haldgódum
stad, burtu víkja, brotna og falla, og þad, sem
á honum hékk, ofan detta; því Drottinn hefir
svo til skipad.

## 23. Kapítuli.

Spádómur um eydileggíngu Týrusborgar, og um vid-
reisn hennar aptur.

1. Spádómur um Týrusborg. Kveinid,
þér Tarsísborgar knerir! því allt er í eydi, og
ekkért hús eptir, sem inn í verdur farid. Þeir
fá ad frétta þad frá Kitta-landi. 2. Verid
hljódir, þér innbyggjendur þeirrar strandar, sem
full var af sjófarandi kaupmønnum frá Sí-
donsborg, 3. sem flutti ad sér Síkors sád a)
og Nílar korn yfir stór høf, og var kauptún
þjódanna! 4. Fyrirverd þig, Sídonsborg! því
sjórinn segir, og sæborgin tekur til orda: eg
skal aldrei verda þúngud framar, né børn ala,
og ekki uppfóstra ýngismenn eda uppala ýng-
ismeyar. 5. Einsog menn skélfdust, þá þeir
fréttu ófarir Egyptalands, eins munu þeir skélf-
ast, þá þeir fá fregn af Týrusborg. 6. Far-
id yfir til Tarsísborgar! kveinid, þér strand-
byggjar! 7. Er þetta sú hin gladværdarfulla
borg ydar,' sem ádur var hin ellsta borg í
fornøld, en sem nú verdur ad fara, sem fætur
toga, lángt burt til annara landa? 8. Hvørr
hefir látid þetta koma fram vid Týrusborg,
hana, sem úthlutadi kórónum, og hafdi lands-
høfdíngjana fyrir kaupmenn, og hina álitleg-
ustu menn á jørdunni fyrir sína verdslunar-
menn? 9. Drottinn allsherjar hefir þessu svo
rádstafad, til þess ad steypa drambi allra of-
lætismanna, og til ad gjøra hina tignustu menn
jardarinnar fyrirlitna. 10. Renn þú, Tarsís-
borg, einsog vatnsstraumur innan um land
þitt! Þú ber nú ekki belti framar! 11. Drott-
inn, sem útréttir hønd sína yfir hafid, og skélf-
ir Konúngaríkin, hann hefir bodid ad brjóta
nidur varnarvirki Kanverjalands; 12. hann hef-
ir sagt: þú skalt ekki leingur leika af kjæti, þú
spjallada mey, Sídons dóttir b) Statt upp,
og far yfir til Kittalands! Þú skalt ekki held-
ur finna þar hvíld (varanlegan samastad). 13.
Líttu á Kaldealand! þessari þjód mun ekki fara,
sem Assýríumønnum; hún mun gjøra borgina
ad bústad villudýra, þeir (Kaldear) munu reisa
vígturna móti henni, herja á hallir hennar,
og leggja hana vid velli. 14. Kveinid, þér
Tarsísborgar knerir, því ydar varnarvirki er
lagt í eydi. 15. Þá mun þad verda, ad
Tyrusborgar skal ekki gétid verda um sjøtýgi
ár, ekki heldur enn á døgum hins fyrsta Kon-
úngs (hennar). En ad lidnum sjøtýgi árum
mun fara fyrir Týrusborg, eins og segir í
skjækjukvædi nokkuru: 16. „Tak hørpuna og
gakk um kríng í borginni, þú gleymda skjækja!
hreif þú hørpustreingina fagurlega, og kved
mørg kvædi, svo þín verdi minnst aptur"!

V. 3. *a.* Síkors sád, sá jardargródi, sem vex á Síkors (Egyptalækjar) bøkkum. V. 12. *b.* Sídons dóttir, Týrusborg, sem var nýlenda frá Sídonsborg.

17. Að liðnum þeim sjötýgi árum mun Drottinn vitja Týrusborgar; mun hún þá komast aptur að kaupgjaldi sínu, og hafa mök við öll Konúngaríki, þau sem á jörðunni eru. 18. En afláfé og kaupgjald hennar skal þá vera helgað Drottni; það skal ekki verða lagt í sjóð eða geymt, heldur skulu þeir, sem búa frammi fyrir augliti Drottins, hafa afláfé hennar sér til fæðslu og saðníngs og sæmilegs klæðnaðar.

## 24. Kapítuli.

*Eydilegging Gydíngalands, hegníng Guds óvina.*

1. Sjá, Drottinn tæmir landið, og eyðir það; hann kollvarpar því, og tvístrar innbyggjendum þess. 2. Þá fer fyrir kénnimönnunum eins og fyrir alþýðunni, fyrir húsbóndanum eins og fyrir þjóninum, fyrir húsfreyunni sem þjónustukonunni, fyrir seljanda sem kaupanda, fyrir leigjanda sem leigumanni, fyrir lánardrottni eins og fyrir skuldunaut. 3. Landið skal verða aleyðt og gjörsamlega rænt, því Drottinn hefir svo ákveðið. 4. Landið sýtir og hjaðnar, jörðin fölnar og visnar, mestu háttar menn af landsfólkinu eru hnuggnir. 5. Landið, sem innbyggjendurnir gánga á, vanhelgast: því þeir yfirtroða lögin, brjála boðorðunum, rjúfa hinn eilífa sáttmálann. 6. Þess vegna eyðileggst landið af óblessan, og innbúar landsins verða sakfallnir; þess vegna þverra innbyggjendur landsins, svoað fátt manna er eptir orðið. 7. Vínberjalögurinn sýtir, vínviðurinn harmar; allir sem áður voru af hjarta glaðir, þeir andvarpa. 8. Gleðihljóð bumbanna er þagnað, fagnaðaróp hinna glaðværu hætt, glaumur hörpunnar þagnaður. 9. Menn sitja ekki sýngjandi að víndrykkju; þeim, sem drekka áfengan drykk, finnst hann beiskur. 10. Borgin er niðurbrotin og í eyði; hvört hús er apturlokað, svo ekki verður innkomist. 11. Á strætunum er harmakvein af vínskortinum; öll gleði er horfin, fögnuður landsins flúinn. 12. Í borginni er ekkért eptir nema eyðileggíng; borgarhliðin eru sundurmölvuð með braki og brestum. 13. Svo er umhorfs í landinu og á meðal fólksins, sem þá viðsmjörsber hafa verið ofan skékin af viðsmjörsviðartré, eða sem eptirtíníngur að loknum vínberja lestri. 14. Þessir (sem eptir verða), munu upp hefja raust sína, þeir munu lofsýngjandi prísa hátign Drottins: til þeirra mun heyrast betur en til sjáfarhljóðsins. 15. Vegsamið þess vegna Drottinn í hinum norðlægu löndunum, vegsamið nafn Drottins, Ísraels Guðs, í hinum fjarlægu sjáfarbygðum. 16. Vér heyrum lofsaungva frá ytstu jöðrum jarðarinnar um vegsemd hinna guðhræddu. Þá verður mér að segja: æ, mig auman! æ, mig auman! vei mér! Svikararnir hafa svik í frammi, og sýna skaklega ótrygð. 17. Skélfíng, gröf og snara vofir yfir þér, innbúi landsins! 18. Sá sem hljóðandi flýr undan skélfíngunni, fellur í gröfina; sá sem kémst upp úr gröfinni, festist í snörunni: því vatnsrásirnar af himni opnast, og grundvellir jarðarinnar skjálfa. 19. Landið nötrar af skjálfta: landið sundurklofnar af hristíngi: landið leikur á reiðiskjálfi. 20. Landið reikar, eins og drukkinn maður: því svipar til og frá, eins og húðfati, sem hángir við limar uppi; misgjörð þess liggur þúngt á því, það hnígur, og fær ekki risið upp framar. 21. Á þeim degi mun Drottinn heimsækja hæðanna her á hæðum uppi, og Konúnga jarðarinnar á jarðríki. 22. Þeir skulu samanreknir verða í einn hnapp, og flytjast bundnir til gryfjunnar, og inniluktir verða í díblissunni; þar skal þeim refsað verða í marga daga. 23. Þá skal túnglið fyrirverða sig og sólin blygðast, þegar Drottinn allsherjar ríkir á Síonsfjalli og Jerúsalems borg og í augsýn sinna öldúnga með vegsemd.

## 25. Kapítuli.

Lofsaungur Gydíngalýds.

1. Drottinn, þú ert minn Gud, eg vil veg-
sama þig, og lofa þitt nafn; því þú hefir gjørt
furduverk, og þínar rádstafanir frá alda ødli
eru stadfastar og óbrigdular. 2. Því þú hef-
ir gjørt borgina a) ad grjóthrúgu, þann hinn
víggyrdta stadinn ad nidurfallinni rúst, og far-
id svo med hallir ofríkismannanna í borginni,
ad þær verda aldrei upp bygdar. 3. Þess vegna
mun sérhvørt voldugt fólk heidra þig, og borg-
ir ofríkisfullra þjóda hrædast þig. 4. Því þú
varst vørn lítilmagnans, hlíf hins vesæla í mót-
lætinu, skjól í hretvidrinu, skuggi í hitanum;
því ofsi ribbaldanna er eins og hret á vegg.
5. Þú sefar gledilæti ofstopanna, eins og (þú
sefar) hitann á heidunum: sigursaungur ofstop-
anna dvínar, (eins og) hitinn vid skuggann
af skýinu.

6. Drottinn allsherjar mun uppi á þessu fjalli
halda øllum þjódum veitslu af feitum kræsum,
veitslu af kláru víni, af mergjar feiti og af
síudu dreggja víni b). 7. Á þessu fjalli mun
hann bregda burtu þeim hjúp, sem breiddur var
fyrir ásjónu allra lýda, og þeirri skýlu, sem
huldi allar þjódir. 8. Hann mun daudann
afmá ad eilífu, og Drottinn hinn alvaldi mun
tárin af þerra af øllum ásjónum, og afmá sví-
virdíngu síns fólks í øllum løndum. Því
Drottinn hefir talad þad. 9. Á þeim degi
mun sagt verda: sjá! þessi er vor Gud: vér
vonudum á hann, og hann frelsadi oss; þessi
er Drottinn, sem vér vonudum á. Látum
oss fagna, og gledjast af hans hjálprædi!
10. Því hønd Drottins hvílist á þessu fjalli.
Móabsmenn skulu fóttrodnir verda, þar sem
þeir eru staddir, eins og hálmur er trodinn í
saur nidur. 11. Þá munu þeir fórna upp
høndum, þar sem þeir eru, eins og sundmad-
ur réttir út hendur sínar til ad grípa sund.
En hann mun lægja dramb þeirra med hnúum
sinna handa; 12. og hinum háfu virkisvegg-
jum þeirra mun hann kollvarpa, nidursteypa og
fleygja til jardar í duptid.

## 26. Kapítuli.

Gledisaungur hinna frelsudu.

1. Á þeim degi mun þessi lofsaungur súng-
inn verda í Júdalandi: vér høfum øruggt vígi,
hann lætur hjálprædid vera vorn múr og verju.
2. Látid upp hlidin, svo hinn réttláti lýdur
megi inn gánga, þad fólk, sem trúnadinn vard-
veitir. 3. Þín rádstøfun stendur stødug; þú
afrekar ævarandi frid: þess vegna treysta menn
á þig. 4. Treystid Drottni æ og ætíd, því
Gud Drottinn er eilíft bjarg. 5. Hann nidur-
lægir þá, sem sitja hátt; háreistu borginni
steypir hann nidur, hann hrindir henni til jard-
ar, og leggur hana í duptid, 6. svo fætur
manna nidurtroda hana, og þad fætur fátækra,
iljar umkomulausra. 7. Vegur hins réttláta er
beinn og réttur: þú gjørir gøtu réttláts manns
þrádbeina. 8. Á veginum þinna réttinda
væntum vér eptir þér, Drottinn: til þíns nafns
og til þinnar minníngar stendur vor hjartans
eptirlaungun. 9. Mín sála, hún þreyir eptir
þér á næturnar: andinn í brjósti mínu, hann
leitar þín; því þegar þínir dómar gánga yfir
jørdina, þá læra heimsins innbyggjendur rétt-
lætid. 10. Sé hinum ógudlega líknad, þá
lærir hann ekki réttlætid, hann gjørir órétt í
landi réttindanna c), og gefur ekki gætur ad
hátign Drottins. 11. Drottinn, þín hønd er
á lopti, þó þeir sjái hana ekki; þeir munu

V. 2. a. Þ. e. Babelsborg. V. 6. b. Þ. e. besta víni. Til þess ad vínid skyldi magnast og lítkast vel, var þad látid standa á víndreggjunum, og sídan afhellt og síad; þá hét þad dreggjavín, og þókti hid besta. V. 10. c. Land réttindanna, þad land, hvar réttlæti og gudhrædsla á ad ríkja.

samt sjá þá umhyggju, sem þú ber fyrir þín-
um lýð, og eldur skal eyða mótstødumønnum
þínum. 12. En oss muntu, Drottinn, veita
frið; því allt hvað vér tøkum oss fyrir hend-
ur að gjøra, það framkvæmir þú fyrir oss.
13. Drottinn, vor Guð, yfir oss drottnuðu
aðrir drottnendur enn þú; en þú ert sá ein-
asti, hvørs nafn vér vegsømum. 14. Þeir,
sem dánir eru, lifna ekki: þeir, sem framliðnir
eru, upprísa ekki; því þú hefir vitjað þeirra
og afmáð þá, og að aungvu gjørt alla þeirra
minníngu. 15. Þú lætur fólkið fjølga, Drott-
inn, þú lætur fólkið fjølga; þú auðsýnir þinn
mátt: þú eykur út øll takmørk landsins. 16.
Drottinn, í neyðinni leituðu þeir þín: þegar
þú hyrtir þá, stundu þeir upp andvørpum.
17. Eins og þúnguð kona, sem komin er að
því að hún skuli fæða, tekur sóttina og hljóðar
í harmkvælum sínum: eins vorum vér fyrir
þínu augliti, Drottinn. 18. Vér vorum þúng-
aðir, vér kéndum sóttar, en það, sem vér fædd-
um, var hégómi: landinu gátum vér einga
bjørg veitt, og innbyggjendur ríkisins endur-
fæddust ekki. 19. „Menn þínir, sem dánir
eru, skulu lifna, mitt andvana fólk skal upp-
rísa. Vaknið, hefjið upp fagnaðarsaung, þér
sem búið í duptinu! því lífsins døgg er þín
døgg, og jørðin skal endurfæða hina fram-
liðnu. 20. Gakk, mitt fólk, inn í herbergi
þitt, og loka dyrunum eptir þér, og fel þig þar
um stundar sakir, uns reiðin er hjá liðin.
21. Því sjá þú! Drottinn geingur út frá sín-
um aðseturssstað til að hegna innbyggjendum
jarðarinnar fyrir misgjørðir þeirra; jørðin
mun byrtast láta það blóð, sem á hana
hefir verið úthellt, og hún mun ekki leing-
ur fela mega þá menn, sem á henni hafa
líflátnir verið.

## 27. Kapítuli.

Drottinn eyðir óvinum síns fólks: lofsaungur um vernd Drottins. Drottinn hirtir sitt fólk til að betra það.

1. Á þeim degi mun Drottinn með hinu
harða, mikla og sterka sverði sínu vinna á
hinum mikla dreka, bæði þeim drekanum, sem
er eins og beinvaxinn ormur, og á hinum,
sem er eins og hrínglaginn ormur; hann mun
og bana ófreskjunni, sem í hafinu er. 2. Á
þeim degi skuluð þér kveða saung á víxl hvørr
við annan, um hinn lystilega víngarð a): 3.
„Eg Drottinn vernda hann, og vøkva hann á
hvørri stund; eg gæti hans nótt og dag, svo
einginn grandi honum". 4. „Eg hefi eingan
múrvegg. Eg vildi óska, að eg hefði girðíngu
af þyrnum og þistlum!" „Eg skyldi herja á
hana og brenna hana alla saman. 5. Haldi
hann (víngarðurinn) sér heldur føstum við
mína vernd! Gjøri hann frið við mig! við
mig á hann að gjøra frið. 6. Jakobs ætt
skal á síðan festa rætur, og Ísraels lýður
blómgast og dafna, og uppfylla heimskríngl-
una með ávøxtum.

7. Hefir hann slegið þá, eins og hann sló
þann, sem plágaði þá? eða deyddi hann þá,
eins og hann deyddi banamenn þeirra? 8.
Harðlega hegndir þú þjóðinni b), þegar þú
rakst hana frá þér, og hreifst hana burt í
hvøssum vindi, á degi austanstormsins. 9.
En þar með afplánast líka misgjørð Jakobs
niðja, og ávøxturinn er einmitt sá, að syndir
þeirra verða afmáðar, með því að hann gjørir
øll steinølturun að sundursleg num kalksteinum,
og Astørtu líkneskjur og aðrar goðalíkneskjur
hafa ekki stað framar. 10. Því hin víggyrðta
borg skal verða eyðileg, eins og afréttur, ein-
stæð og yfirgéfin, eins og øræfi, þar sem kálf-
ar gánga, og liggja, og bíta kvistuna: 11.

V. 2. *a*. Þ. e. um Ísraelsmenn. V. 8. *b*. Hebr". Þú ávítaðir hana með hørðum ávítum".

þar sem staunglarnir skrælna og brotna, svo konur koma og hafa þá til eldsneytis. Af því þessi þjóð hefir eingan skilníng, þess vegna getur hann, sem skóp hana, ekki verid henni miskunsamur, og hann, sem myndadi hana, ekki verid henni líknsamur. 12. En á sídan mun Drottinn slá ávøxtinn af trjánum, allt í frá straumum Fljótsins og til Egyptalækjar; og þér, Ísraelsmenn, munud samantíndir verda einn eptir annan. 13. Á þeim degi mun stór básúna vidkveda, og þá munu þeir koma, hinir tøpudu í Assýralandi og hinir útreknu í Egyptalandi, og þeir munu tilbidja Drottinn á fjallinu helga í Jerúsalemsborg.

## 28. Kapítuli.

Spádómur um eydileggíng Ísraelsríkis; sidaspillíng Júdaríkis og eydileggíng þess; Guds vísdómur og gjæska.

1. Vei hinni tignarlegu kórónu hinna drukknu Efraimsmanna, hinu følnanda blómstrinu, þeirri fegurdar prýdinni a), sem stendur á hædinni í hinum frjóssama dal enna víndrukknu. 2. Sjá, einhvørr sterkur og voldugur kémur, ad rádstøfun Drottins, eins og haglhríd, eins og fárvidri, eins og hríd strídra vatna streymir ofan og steypir sér til jardar volduglega. 3. Hin tignarlega kóróna hinna drukknu Efraimsmanna skal verda fótum trodin; 4. hid følnanda blómstur, fegurdar prýdin, sem stendur í hinum frjóssama dal, skal verda sem árfíkja, sú er þroskast fyrir uppskérutímann: undir eins og einhvørr sjer, ad hún er á trénu, grípur hann hana med hendi sinni, og gleypir hana í sig. 5. Á þeim degi mun Drottinn allsherjar vera føgur kóróna og prýdilegt høfuddjásn fyrir eptirleifar b) síns fólks, 6. réttlætis andi fyrir þá, sem í dóminum sitja, og styrkleikur þeirra, sem bægja ófridinum frá landinu.

7. En einnig þessa ríkis c) innbyggjendur reika af víndrykkju, og fara ráfandi af sterkum drykkjum. Kénnimenn og spámenn reika af hinum áfeinga drykk, og verda sigradir af víninu. Þeir fara ráfandi af sterkum drykk og reika af víni, og fyrir því skjátlar þeim í vitrunum sínum, og eru á reiki í dómunum. 8. Því øll matbord eru full af óþektar spýu, og einginn stadur er hreinn. 9. „Hvørjum vill hann kénna vitsku? Hvørn vill hann fræda í kénníngu sinni? Vill hann fræda oss, sem vandir erum af mjólkinni og teknir af brjóstunum? 10. Því hér kémur bodord á bodord ofan, regla á reglu ofan, eitt bodord á fætur ødru, og ein reglan á fætur annari: hér er eins vant, og þar er annars vant". 11. Hann mun þá tala til þessa fólks á útlendsku máli og á annara þjóda túngu. 12. Þegar hann sagdi til þeirra, "þar í er hvíldin, þar í er rósemin innifalin, ad þér ljáid hvíldar hinum þreytta", þá vildu þeir ekki hlýda. 13. Þá var sem Drottinn hefdi sagt til þeirra, „bodord á bodord ofan, regla á reglu ofan, eitt bodord á fætur ødru, og ein reglan eptir adra, hér er eins vant, og þar er annars vant", til þess þeir skyldu hvad eptir annad detta aptur á bak og slasa sig, festast í snørunni og verda teknir. 14. Heyrid þess vegna ord Drottins, þér spottarar, sem drottnid yfir því fólki, sem hér býr í Jerúsalemsborg. 15. Sökum þess þér segid: „vér høfum gjørt sáttmála

V. 1. *a.* Efraimsmenn, innbúar Ísraelsríkis. Samaría, høfudborg ríkisins, lá á fjallshæd, og dalir í kring. V. 5. *b.* Þ. e. innbyggjendur Júdaríkis. V. 7. *d.* Nefnil. Júdaríkis. V. 9—10. eru ord þeirra, sem gjørdu gys ad áminningum Drottins. V. 11. Á útlendsku máli, þ. e. hann (Drottinn) mun láta útlendar þjódir (t. d. Kaldea) segja þeim til sidanna, fyrst þeir vilja ekki gégna umvøndun Drottins.

„vid daudann og samband vid daudans ríki a); „þó ad hin ádynjandi plága gángi yfir, þá „mun hún ekki ná til vor: því vér höfum gjört „lýgina ad athvarfi voru, og svikin ad skjóli „voru“: 16. þess vegna segir Drottinn hinn alvaldi svo: Eg hefi lagt undirstödustein á Síonsfjalli, prófadan stein, ágjætan hornstein, fullkomlega skordadan; hvörr sem vid hann styðst, sá þarf ekki ad óttast. 17. Eg vil láta dóminn vera einsog mælisnúru, og réttvísina eins og mælilód; og þá skal haglhríd burt slíta athvarf lýginnar, og vatnsflód skola burt skjólinu. 18. Sáttmáli ydar vid daudann skal afmádur verda, og samband ydar vid daudans ríki eingan stad hafa: þegar hin ádynjandi plága geingur yfir, skulud þér verda fyrir henni; 19. í hvört sinn sem hún á dynur, skal hún ná ydur: á hvörjum einum morgni skal hún yfir dynja, eins nótt, sem nýtan dag: þad skal vera nóg hrædslugjædi, þó ekki komi nema fregn af henni. 20. Þá mun sængin verda svo stutt, ad madur mun ekki fá rétt sig í henni, og ábreidan svo mjó, ad madurfær ekki skýlt sér. 21. Því Drottinn mun uppstanda, eins og á Prazimsfjalli (1 Kron. 14, 11): hann mun reidast, eins og í dalnum hjá Gibeonsborg b), til þess hann vinni þad verk, sem hann er ekki vanur ad vinna c), og fremji þá athöfn, sem honum er nýtt ad fremja. 22. Látid nú af ad spottast, svo fjötrar ydrir verdi ekki enn hardari; því hinn alvaldi, Drottinn allsherjar, hefir kunngjört mér, ad fullkomid tjón og algjör eydilegging skuli koma yfir landid.

23. Hlustid til, og heyrid mína rödd! Hyggid ad, og hlýdid á mín ord! 24. Er akurmadurinn vanur ad plægja, rista og harfa akurland sitt til sædis á hvörjum degi? 25. Fer hann ekki heldur svo ad? Þegar hann hefir jafnad moldina ad ofan, kastar hann þar í karba, hann sældar kúmeni, sáir hveiti, hrísgrjónum, byggi, hirsa, kirni, hvörju í sinn reit. 26. Hann fer med sádid eptir þeirri reglu, sem Gud hefir kennt honum. 27. Karbi er ekki þresktur med þreskikefli, og vagnhjóli er ekki velt yfir kúmen; heldur er karbi barinn af med staf, og kúmen med sprota. 28. Hveitikorn er sprengt út (úr axinu), en þó er ekki alltaf verid ad þreskja þad, eda sundurmerja þad, med því ad renna yfir þad vagnhjólinu eda keyra hestinn yfir þad. 29. Einnig þetta kémur frá Drottni allsherjar; hann er undrunarlegur í rádum, og mikill í vísdómi.

## 29. Kapítuli.

Drottinn frelsar Jerúsalemsborg úr hershöndum; blindni þjódarinnar og apturhvarf á betra veg.

1. Æ, Aríelsborg, Aríelsborg, þú adsetursstadur Davíds! Þegar enn er komid eitt ár, og ad lidnum einum hátídahríng, 2. vil eg þreyngja svo ad Aríelsborg, ad þar skal vera eintóm hrygd og ángist; en hún mun reynast mér eins og (sannkallad) altari Guds. 3. Eg vil setja herbúdir allt í kríng um þig, þreyngja ad þér med herlidi, og reisa hervirki á móti þér. 4. Þú skalt nidurlægd verda: liggjandi á jördu skaltu mæla, og úr moldardupti tala í hálfum hljódum; rödd þín skal koma nedan úr jörd, eins og draugsrödd, og þú skalt ýlfra mædulega upp úr moldinni. 5. En mergd fjandmanna þinna skal verda ad þunnu mold-

V. 15. *a.* Þ. e. vér erum svo óhræddir vid þad tjón og þá eydileggingu, sem Drottinn og hans Spámenn hafa ógnad oss med, eins og vér hefdum gjört sáttmála vid sjálfan daudann og hans ríki. V. 21. *b.* Sjá 1 Kron. 14, (15), 13—17; merk: í nýju útleggingunni vantar á þessum stad 16. og 17. versid. *c* Nefnil., ad refsa svo hardlega sínum útvalda lýd, eins og væru þeir óvinir hans. V. 1. Aríelsborg (Guds=altaris=borg) er Jerusalemsborg, af Aríel, altari Guds, sem sumir útleggja „Guds ljón“.

arryki, og fjøldi ofsóknarmanna þinna ad fjúkandi sádum; og þad skal verda skyndilega, á einu augabragdi. 6. Drottinn skal heimsækja þenna óvinafjølda med reidarþrumum, landskjálftum og miklum gný, fellibyljum, stormvidri og brennandi eldslogum. 7. Fyrir øllum þeim mannfjølda, sem fer leidángur móti Aríelsborg, herjar á hana og varnarvirki hennar, og þreyngir ad henni, skal fara eins og í draumi þeim, sem ber fyrir mann á nóttu. 8. Eins og húngradan mann dreymir, ad hann eti, en er þó jafnmatlystugur, þegar hann vaknar: eins og þyrstan mann dreymir, ad hann drekki, en er þó jafnmáttvana, þá hann vaknar, af því hann lángar í svaladrykkinn: eins mun fara fyrir øllum þeim mannfjølda, sem herjar á Síonsfjall.

9. Fallid í stafi og undrist! verid sjónlausir og blindir! Þeir eru drukknir, en ekki af víni; þeir reika, og þó ekki af áfengum drykk. 10. Því Drottinn hefir úthellt yfir ydur svefnsemis anda; hann hefir apturlukt augum ydar, og brugdid hulu yfir spámennina, og yfir þá af høfdíngjum ydar, sem þykjast fá vitranir; 11. svo ad øll opinberan er ydur sem ord bókar þeirrar, sem innsiglud er. Sé hún fengin þeim, sem kann ad lesa, og sagt, „les þú þetta", þá svarar hann: eg gét þad ekki, því bók þessi er innsiglud; 12. en sé hún fengin ólæsum manni, og hann bedinn ad lesa hana, þá segir hann: eg er ekki læs. 13. En Drottinn segir: Med því þetta fólk nálgast mig med munni sínum, og heidrar mig med vørum sínum (einúngis), en fjarlægir hjarta sitt lángt í burt frá mér, og med því gudhrædsla þeirra er innifalin í manna bodordum, sem þeim hafa kénd verid: 14. Þess vegna sjá, eg vil hér eptir gjøra þetta fólk ad undri, og svo skal kynlega vid bregda, ad vísdómur spekínga þeirra skal undir lok lída, og hyggindi hyggindamannanna hverfa í felur. 15. Vei þeim, sem leggjast svo djúpt, ad þeir vilja dylja áform sín fyrir Drottni, og fela athafnir sínar í myrkri, og segja: hvørr sjer til vor? hvørr veit af oss? 16. Sannarlega skulud þér taka umskiptum, eins og leirsmids mór. Gétur smídisgripurinn sagt um smidinn: „þú hefir ekki smídad mig"? eda myndin um myndarann: „hann hefir ekki kunnad neitt"? 17. Sjá, þad skal ekki á laungu lída, ad Líbanonsskógur skal verda ad aldinmørk, og aldinmørkin ad skóglandi. 18. Og á þeim degi skulu þeir, sem daufir eru, heyra ord bókarinnar (v. 11. 12), og augu þeirra sem blindir eru, skulu sjá í gégnum myrkur og dymmu. 19. Hinir voludu skulu af nýu gledjast í Drottni, og hinir fátæku fagna í hinum heilaga Gudi Ísraels: 20. Þegar ofbeldis madurinn er undir lok lidinn, spottarinn tortýndur, og allir þeir afmádir, sem eru árvakrir til þess, sem íllt er, 21. sem lokka menn med fortølum til þess ad syndgast, sem leggja snørur á þíngum fyrir þann, sem vandar um vid adra, og bera fyrir bord málefni hins saklausa. 22. Þess vegna segir Drottinn, hann, sem frelsadi Abraham, svo til Jakobs nidja: Nú skulu Jakobs nidjar ekki blygdast framar, og ásjónur þeirra ekki blikna. 23. Því þegar þeir sjá afkvæmi sín, sem eru verk minna handa, midt á medal sín, þá munu þeir vegsama mitt nafn, vegsama hinn heilaga Jakobs Gud, og óttast Ísraels Gud. 24. Þá munu fárádlíngarnir fá betri skilníng, og hinir mótmælasømu frædast betur.

## 30. Kapítuli.

Spámadurinn ávítar Gydínga fyrir þad, ad þeir af ótta fyrir Assyríumønnum leitudu trausts hjá Egyptskum, og ad þeir fyrirlitu áminníngar Spámannanna; bodar þeim Guds líkn og frelsun frá yfirgángi Assyríumanna, ef þeir treysti Gudi, hlýdi spámønnunum og hafni skurdgodum.

1. Vei þeim børnum, segir Drottinn, sem

eru svo þverúdarfull, ad þau taka rád sín saman án minna atkvæda, gjøra sambanb vid adra, þvert á móti mínum vilja, og auka þannig synd á synd ofan, 2. sem gjøra sér ferd ofan til Egyptalands, án þess ad leita minna atkvæda, til þess ad efla sig med styrk Faraós, og leita sér skjóls í skugga Egyptalands. 3. En styrkur Faraós skal verda ydur til skammar, og skjólid í skugga Egyptalands til svívirdíngar. 4. Høfdíngjar þeirra (Ísraelsmanna) hafa verid í Sóansborg, og sendimenn frá þeim hafa komid til Hanesborgar. 5. En þeir munu allir hljóta ad skammast sín fyrir þá þjód, sem ekki gétur ordid þeim ad nokkuru lidi; hún verdur til eingrar hjálpar, til einskis gagns, heldur til mínkunar einnar, og jafnvel til hádúngar. 6. Klyfjadir eykir gánga sudur; til ánaudarlandsins og kúgunarlandsins, til þess landsins, hvar ljónsmædrur og ljón, nødrur og flugdrekar búa, flytja þeir audæfi sín á asnabøkum og fjársjódu sína á úlfaldakryppum, til þeirrar þjódar, sem ekkért lid gétur veitt þeim. 7. Lidveitsla Egyptalandsmanna verdur til einskis, til ónýtis; þess vegna kved eg svo ad ordi um þá: „þeir hafa mikid um sig, en fara hvørgi". 8. Far nú, og ríst þetta á spjald, svo þeir sjái, og rita þad í bók, svo þad verdi uppi hér eptir um aldur og æfi.

9. Þessi lýdur er þverúdarfullur; þad eru óhlýdin børn: børn, sem ekki vilja heyra løgmál Drottins, 10. sem segja til þeirra, er fá opinberanir: „þér skulud eingar opinberanir fá"; og til þeirra, sem fá vitranir: „þér skulud ekki spá því, sem rétt er; segid oss heldur þad, sem gédfeldt er, spáid því, sem táldrægt er; 11. farid út af veginum, beygid út af brautinni, víkid hinum heilaga Gudi Ísraels í burt frá augliti voru"! 12. Þess vegna segir hinn heilagi Ísraels Gud svo: Søkum þess þér hafnid þessu ordi, en reidid ydur á ofríki og rángindi, og styd jist vid þau: 13. þá skal þessi misgjørd verda ydur eins og veggjarkafli, sem ætlar ad hrapa, og sem búnga á háfum múrvegg, sem fljótt og óvørum hrynur inn, 14. og brotnar í sundur, eins og leirkér, sem mølvad er í smátt hlífdarlaust, svo ad af brotum þess fæst ekki svo mikid sem leirbrot, til ad taka med eld af arni, eda til ad ausa med vatn úr grøf. 15. Því svo sagdi hinn Alvaldi, Drottinn, hinn heilagi Ísraels Gud: „ef þér snúid ydur og erud rósamir, þá munud þér frelsadir verda: í rósemi og trausti skal ydar styrkur vera"; En þér vildud þad ekki: 16. „nei", søgdud þér, „vér viljum forda oss á hestum" — en þá skulud þér vera sem flóttamenn — „vér viljum rída á léttum reidskjótum". — En þá skulu þeir líka vera léttir á sér, sem elta ydur. 17. Þúsund af ydur skulu flýa fyrir ópi eins manns, og fyrir herópi fimm manna skulud þér flýa svo gjørsamlega, ad eptirleifar ydrar skulu vera sem vitastaung á fjallstindi, og sem hermerki á hól.

18. Þó mun Drottinn hafa bidlund vid, svo hann géti líknad ydur; hann mun sýna sig hátt upp hafinn, þá hann fer ad miskuna ydur: því Drottinn er Gud réttlætisins; sælir eru allir þeir, sem á hann vona. 19. Þér, Síonsborgar menn, þér sem búid í Jerúsalems borg, þér skulud þá ekki gráta; hann mun líkna ydur fúslega, þegar þér kallid í neydinni: hann mun svara ydur, undir eins og hann heyrir þad. 20. Hinn alvaldi mun géfa ydur braud, þegar þér eigid bágt, og vatn í neydinni. Kénnifedur ydrir munu ekki verda í burt teknir frá ydur, þér munud hafa þá fyrir augum ydar. 21. Hvørt sem þér víkid til hægri handar eda vinstri, munud þér heyra þessi ord tølud á baki ydar: „hér er sá vegur, sem þér skulud gánga, farid hann!" 22. Þá munud þér vanheilagan álíta silfurbúnadinn ydvarra skurdgoda, og gullbún-

adinn ydvarra líkneskja; þér munud burtsnara þeim, sem óhreinu klædi, og segja til þeirra, „burt hédan!" 23. Þá mun hann regn géfa sædi því, er þú sáir í akurland þitt, og láta hinn feita og frjóssama jardveg braud af sér géfa. Fénadur þinn mun á þeim tíma gánga í vídlendum grashaga. 24. Þeir uxar og asnar, sem vinna ad akuryrkjunni, skulu eta samfeingid korn, salti blandad, sem sældad hefir verid med sáldi og vinsad med kornskóflu. 25. Á hvørju háfu fjalli og á hvørri gnæfandi hæd skulu vatnslækir framm fljóta á hinum mikla mannfallsdegi, þegar turnarnir hrapa nidur. 26. Þá skal túnglskinid verda sem sólarljós, og sólarljósid sjøfaldt stærra, einsog sjø daga sólskin, þann dag er Drottinn grædir meinsemdir síns fólks og læknar þess mørdu sár. 27. Sjá! sjálfur Drottinn a) kémur úr fjarlægd: hans reidi er brennandi, og brennur ákaft: varir hans eru fullar af heipt, túnga hans sem eldur brennandi, 28. andi hans er sem ólgandi vatnsfall, þad er tekur manni upp í háls; hann dryptar mennina í sáldi eydileggíngarinnar, og leggur í munn þjódunum bitul þann, er leidir þær afvega. 29. Þá munud þér halda saung, eins og þá nótt, er menn halda heilagt fyrir hátídir: þá mun hjartans gledi á ydur vera, eins og þá geingid er med hljódpípum upp á Drottins fjall til Hellubjargsins Ísraelsmanna b). 30. Þá mun Drottinn heyra láta hina hátignarlegu raust sína, og láta sjá til sín, þegar hann reidir ofan armlegg sinn í hermdar hug, í brennandi eldslogum, í stór flódum, steypihrídum og hagljeljum. 31. Því Assýríumenn skulu skélfast fyrir raustinni Drottins; med sprota sínum mun hann slá þá. 32. Og í hvørt sinn sem refsivølur sá, er Drottinn reidir á lopti uppi yfir þeim, kémur nidur, mun heyrast bumbuhljód og hørpusláttur; því med snarlegri bardaga svipan mun Drottinn á þá herja. 33. Tófetsdalur c) er þegar fyrir laungu undirbúinn, einnig handa Konúnginum; þad er búid ad taka til í dalnum, dýpka hann og gjøra rúmlegan; þar er hladid stórt bál, og eldurinn og eldividurinn er nógur; andi Drottins mun leika á honum, eins og loganda brennusteins flód.

## 31. Kapítuli.

*Sama efni, ad Gydíngar skyldu ekki reida sig á hjálp Egypta, heldur treysta Drottni, sem sjálfur mundi eyda her Assýríumanna.*

1. Vei þeim, sem fara ofan til Egyptalands eptir lidstyrk, sem reida sig á hesta og treysta á vagna, af því þeir séu margir, og á riddara, af því þeir séu mjøg sterkir, en renna ekki augum til hins heilaga Ísraels Guds, og leita ekki Drottins. 2. Hann er þó ad vísu vísdómsfullur: hann gétur látid ógæfuna yfir koma, og hann tekur ekki ord sín aptur; hann rís upp í móti húsi illvirkjanna, og í móti þeim, sem lid veita misgjørdamønnunum. 3. Egyptar eru menn, en einginn Gud; hestar þeirra eru hold, en ekki andi. Þegar Drottinn útréttir sína hønd, þá hrasar lidveitslumadurinn, og sá dettur, sem lidveitsluna hefir þegid, svo þeir tortýnast allir, hvørr med ødrum. 4. Því svo hefir Drottinn sagt til mín: eins og ljónid og ljónskálfurinn øskrar yfir brád sinni, og bregda sér ekki, þó fjølda hjardmanna sé stefnt saman móti þeim, hrædast ekki háreysti þeirra, og láta ekki hugfallast vid mannmergdina: eins mun Drottinn allsherjar ofan stíga til ad verja med herskildi Síonsfjall og hædir þess. 5. Eins og fuglar eru á fløgti (yfir hreidri sínu), eins mun Drottinn

V. 27. *a.* Sjálfur Drottinn, á Hebr., „nafn Drottins". V. 29. *b.* Þ. e. til Drottins (Sl. 17, 10. 26, 4. 44, 8).
V. 33. Í Tófetsdal voru framin blót og børn brend; sídan var sá dalur hafdur fyrir líkabrennur, Jer. 7, 31. 19, 6.

allsherjar vera hlífskjøldur Jerúsalemsborgar, hlífa henni og frelsa hana, verja hana og bjarga henni. 6. Snúid aptur, þér Israelsmenn, til hans, hvørjum þér crud svo lángt fráhorfnir. 7. Á þeim degi mun sérhvørr ydar hafna þeim silfurgodum og gullgodum, sem hendur ydar hafa gjørt til ad syndgast á. 8. Assýríu Konúngur skal fyrir sverdi falla, en ekki fyrir manna sverdi: sverd skal verda honum ad bana, en ekkért manns sverd. Hann skal undan sverdi flýa, og æskumenn hans verda ánaudugir. 9. Fyrir hrædslu sakir skal hann fara fram hjá því hellubjargi, hvar hann gæti haft hæli, og høfdíngjar hans skulu flýa í ofbodi undan merkjunum, segir Drottinn, sá ed hefir sinn eld á Síonsfjalli og ofn sinn a) í Jerúsalemsborg.

## 32. Kapítuli.

Réttlátur Konúngur. Vidrétting landsins eptir eymdarbag þess.

1. Sjá! sá Konúngur skal koma, sem ríkja mun í réttlæti, og høfdíngjar, sem stjórna munu med réttvísi. 2. Sá madur skal koma, sem vera mun eins og hlé fyrir vindi, og skjól fyrir skúrum, eins og vatnslækir í øræfum, og sem skuggi af stórum hamri í vatnslausu landi. 3. Þá skulu ekki apturlukt vera augu þeirra, sem sjá, og eyru þeirra, sem heyra, skulu vera eptirtektasøm. 4. Hjørtu hinna hviklyndu skulu veita vitskunni athygli, og túnga þeirra, sem stama, skal tala lidugt og skírt. 5. Heimskur madur skal ekki framar kallast gódmenni, og undirsørull madur ekki heita gøfugmenni. 6. Því heimskur madur talar heimsku, og hjarta hans fer med þad sem hégómlegt (syndsamlegt) er, svo hann kémur ødrum til ad bera óvirdíngu fyrir Gudi, og lokkar med ordum sínum adra menn til ad falla frá Drottni, lætur hinn húngrada skorta fædu, og hinn þyrsta drykk. 7. Vopn hins undirførula eru skadvænleg: hann upphugsar pretti, til þess ad spilla fyrir hinum umkomulausa, og þad jafnvel þó hinn fátæki hafi satt ad mæla. 8. En gódur madur hugsar um þad, sem gódum manni sæmir, og stendur stødugur í því, sem gódmannlegt er.

9. Standid upp, þér andvaralausu kvinnur b), og heyrid mína raust! þér ugglausu dætur, hlustid á mín ord! 10. Ad ári í þetta mund skulud þér, hinar ugglausu, skélfast, þegar vínberjalesturinn bregdst, og ekkért næst inn af korni. 11. Hrædist, þér hinar andvaralausu! Skélfist, þér hinar ugglausu! Farid af klædum og verid naktar, og leggid hárklædi um lendar ydar. 12. Menn bera sig hørmulega vegna akranna, vegna hinna føgru kornakra, vegna hins frjófsama víngvidar. 13. Á akurløndum míns fólks, já á øllum gledinnar hýbýlum í hinni gladværu borg skulu vaxa þyrnar og þistlar. 14 Hallirnar skulu vera í eydi, og hin fjølmenna borg yfirgéfin; hædir og turnar skulu verda ad hellrum til eilífdar, skógarøsnum til skémtunar og hjørdum til hagbeitar: 15. þar til loksins yfir oss verdur útheltur andi af hædum; þá skal eydimørkin verda ad aldinmørk, og aldinmørkin ad skógarmørk; 16. þá skulu réttindin búa á eydimørkinni og réttlætid hafa sitt adsetur í aldinskóginum. 17. Ávøxtur réttlætisins skal vera fridur: og árángur réttlætisins, rósemi og øruggleiki. 18. Mitt fólk skal búa í hýbýlum fridarins, í heimkynnum øruggleikans, í hvíldarstad róseminnar. 19. En hagli skal rigna, þegar skógurinn c) hrynur nidur, og borgin d) skal djúpt nidurlægd verda. 20. Sælir erud þér, sem hvørgi sáid nema vid vøtn, og látid uxana og asnana gánga sjálfala.

V. 9. *a.* Sinn eld og ofn sinn, þ. e. altari sitt. V. 9. *b.* Kvinnur, dætur, borgirnar i Júdaríki, eda innbyggjendur þeirra. V. 19. *c.* Skógurinn, Assýríuland, borgin, Babýlon eda Ninive.

## 33. Kapítuli.

*Um frelsun Gydínga undan hernadi Senakeribs.*

1. Vei þér, sem herjar, án þess herjad
hafi verid á þig: sem gengur á gridin, án
þess trygdir hafi verid rofnar vid þig! Þeg=
ar þú ert hættur hernadinum, skal á þig sjálf=
an herjad verda; þegar þú ert búinn ad rjúfa
gridin, skulu trygdir verda rofnar vid þig. 2.
Drottinn, vert oss líknsamur! Vér vonum á
þig. Vertu vor styrkur á hvörjum morgni, og
vort hjálpræði á neydartímanum! 3. Þegar
raust þín hljómar, flýa þjódirnar; þegar þú
rís upp, tvístrast heidíngjarnir. 4. Þá mun
ydar herfángi verda safnad, eins og þegar gras=
vargur er ad tína; menn munu støkkva á her=
fángid, eins og þegar jardvargar støkkva. 5.
Háleitur er Drottinn, hann sem býr á hædum
uppi: hann fyllir Síonsborg med réttindum og
réttlæti. 6. Því vísdómur og þekkíng skal vera
vørn og hjálparstyrkur þinnar tídar, og ótti
Drottins fjársjódur hennar. 7. Sjá! hetjurn=
ar kalla um hjálp úti fyrir; fridarbodarnir
gráta beisklega. 8. Þjódvegirnir eru aflagdir:
ferdamenn eru hættir ad fara um farinn veg.
Hann hefir rofid sáttmálann, hann fyrirlítur
borgirnar, og skeytir eingum manni. 9.
Landid sýtir og syrgir; Líbanons skógur fyrir=
verdur sig, hann er visnadur: Saronsvøllur er
eins og audn: Basansheidi og Karmelsfjall
hafa kastad skrúdinu. 10. Nú vil eg upprísa,
segir Drottinn, nú vil eg audsýna mig hátign=
arlegan, og tjá mig voldugan. 11. Þér gángid
med gras, og alid hálm: ydar andi er eldur,
og sá eldur skal eyda ydur. 12. Þjódirnar
skulu verda ad kalkbrennu: þær skulu í eldi
brendar verda, sem upphøggnir þyrnar. 13.
Heyrid, þér sem fjarlægir erud, hvad eg hefi
gjørt; þér sem nálægir erud, gætid ad mínum
styrkleika! 14. Hinir syndugu í Síonsborg
eru óttaslegnir: skjálfti gagntekur hina gud=
lausu: „hvørr er sá á medal vor (segja þeir),
sem búa megi vid brennanda eld? Hvørr af
oss gétur búid hjá eilífum glódum"? 15. Sá
sem framgengur réttvíslega og talar sannleika,
sá sem hafnar þeim ávinníngi, sem fæst med
ofríki, sá sem bandar hendi sinni móti fégjøfum,
sá sem byrgir fyrir eyru sín, svo hann skuli ekki
heyra til, þegar rádin eru manndráp, sá sem
apturlykur augum sínum, svo hann sjái ekki
þad, sem íllt er: 16. sá skal búa uppi á hæd=
unum, hamraborgirnar skulu vera hans vígi:
braudid skal verda fært honum, og vatnid handa
honum skal aldrei þverra. 17. Augu þín
skulu sjá Konúnginn í ljóma sínum; þau skulu
horfa á landid vídsvegar. 18. Hjarta þitt
mun hugsa til hinna óttalegu tímanna (og seg=
ja): hvar er mannkvødumadurinn? hvar er
skatttakarinn? hvar er hann, sem telur turn=
ana? 19. Þú skalt ekki framar sjá hina of=
stopafullu þjód, sem talar svo ógløggt mál,
ad ekki verdur numid, og svo óskilmerkilega
túngu, ad eingi fær skilid. 20. Þú munt
horfa á Síonsborg, vorn samkundustad; augu
þín munu sjá Jerúsalemsborg, hinn ørugga
bústadinn, þá tjaldbúdina, sem aldrei verdur
úr stad færd, og aldrei losna hælar hennar,
og aldrei slitna støg hennar. 21. Því Drott=
inn hinn allsvoldugi mun vera oss þar í stad
vatnsfalla, eins og breid fljót, hvar eingar
ródrarferjur géta gengid, og eingin stórskip um
farid. 22. Því Drottinn, vor dómari,
Drottinn, vor løggjafi, Drottinn, vor Konúngur,
mun frelsa oss. 23. Stagirnir á skipi þínu eru
lausir, sigluþóptan ekki skordud, og seglid ekki
útflett. Nú skal þegar taka til ad skipta því
mikla herfángi, sem rænt hefir verid; jafn=
vel hinir høltu skulu ræna, 24. og eing=
inn af innbyggjendum borgarinnar skal segja:
eg er sjúkur. Fólkinu, sem í borginni býr,
eru syndir þess fyrirgéfnar.

## 34. Kapituli.

Reidiðómur Guds yfir óvinum Guds safnadar. Hegníng Edomsmanna.

1. Gángid nær, þér þjódir, ad þér megid
heyra! Géfid gaum, þér lýdir! Heyri þad jörd-
in, og hvad sem á henni er, heimskrínglan, og
allt sem á henni sprettur! 2. Drottinn er reid-
ur øllum heidíngjum, og gramur øllum herflokk-
um þeirra; hann hefir lýst yfir þeim bøli og
banni, og ætlad þá til slátrunar: 3. hinum hel-
slegnu mønnum þeirra mun verda burtkastad,
hrævadaun upp stíga af líkum þeirra, og fjøllin
renna sundur af blódi þeirra. 4. Allur him-
insíns her hjadnar, og himininn vefst saman
eins og bókfell; allur hans her hrynur nidur,
eins og laufblad fellur af vínvidi, og visinn á-
vøxtur af fíkjutré. 5. Því mitt sverd á himn-
um er blódþyrst: þad mun ofan fara yfir E-
domsland, til hegníngar þeirri þjód, sem eg hefi
lýst bølvan yfir. 6. Sverd Drottins er alblód-
ugt, lødrandi af feiti, af blódi alilambanna og
geithafranna, af nýrnamør hrútanna; því Drott-
inn efnar til fórnarveitslu í Bozraborg, og til
stórkostlegrar sláturs fórnar í Edomslandi. 7.
Ásamt þeim skulu úrar, úngneyti og sterkir uxar
ofan gánga (á blódvøllinn): land þeirra (Edoms-
manna) skal fljóta í blódinu, og jardvegurinn
lødra af feitinni; 8. því nú er kominn hefndar-
dagur Drottins, endurgjalds árid til ad reka
þess réttar, er Síonsborg hefir verid misbodid.
9. Lækir Bozraborgar skulu verda ad biki, og
jardvegur hennar ad brennusteini; land hennar
skal verda ad biki brennanda, 10. sem hvørki
skal slokkna nætur né daga: til eylífdar skal þess
reykur upp stíga; frá einum manns aldri til ann-
ars skal landid liggja í eydi, og þar skal eingi
um fara um alla eylífd. 11. Sarpgjæsir og
íglar skulu eignast landid, náttuglur og hrafnar
skulu búa þar. Landid a) skal verda gjøreydt
og med øllu óbyggilegt. 12. Af hinum edal-
bornu mønnum landsíns skal eingi sá eptir verda,
er kjósa megi til konúngdómsins, því allir høfd-
íngjar landsíns munu undir lok líða. 13. Í
høllum landsíns munu þyrnar upp vaxa, og
klúngur og þistlar í þess víggyrdtu borgum;
landid skal verda ad drekabæli og strútsúnga
inni; 14. þar skulu mætast urdarkéttir og gull-
úlfar, og skógartrøll kallast á: grýlur skulu
búa þar, og finna sér þar hæli. 15. Støkk-
ormurinn skal hafa þar bæli sitt, leggja þar
eggjum, klekja út úngunum, og safna þeim í
skjól vid síg; og gledur skulu flykkjast þar
hvør til annarar. 16. Leitid í bók Drottins,
og lesid: Ekkért af þessum (dýrum) skal
vanta: ekkért þeirra skal annars sakna; því
Drottins atkvædi hefir svo tilskipad, og hans
máttur hefir stefnt þeim øllum þángad; 17.
Hann hefir sjálfur kastad hlutum fyrir þau, og
hans hønd skiptir landinu medal þeirra eptir
mæliþrædi b); til eilífdar skulu þau eignast
þad, og búa þar um aldur og æfi.

## 35. Kapituli.

Sældarhagur Gydíngalýds.

1. Óbygdin og hid þurra landid, skal gled-
jast af þessu; øræfin skulu fagna, og blómg-
ast sem haustlaukur. 2. Landid skal blómgast
vegsamlega, þad skal fagna med gledisaung;
vegsemd Líbanonsfjalls, prýdi Karmels og
Sarons, skal landinu aptur fengin verda; inn-

V. 4. Med þessum ordatiltækjum ásmálast hin óttalegasta eydilegging. V. 6. Bozraborg, høfudborgin í Edoms-
landi; alilomb, geithafrar, hrútar, þ. e. hinir ædri menn í landinu. V. 7, Urar, (Villiuxar), o. s. fl., merkja
høfdingjana. V. 11. *a*. Hebr., hann mun spenna yfir þad mæliþrád audnarinnar og steinlód óbyggilegleik-
ans, V. 15. Gleda, hræfugl af fálkakyni (kallast glenta í félagsrit. 13, 18). V. 16. Bók Drottins, þ. e. í
þessari spádomsbók. V. 17. *b*. Þ. e. eptir réttri tiltølu.

búar landsins skulu fá ad sjá dýrdina Drottins,
hátignarljómann vors Guds. 3. Styrkid hin-
ar máttvønu hendurnar, stødvid hin skjøgr-
andi knén! 4. Segid hinum ístødulausu: „ver-
id hughraustir, óttist eigi! Sjáid! ydar Gud
er nálægur, hefndin kémur, Guds endurgjald
kémur. Hann kémur sjálfur og frelsar ydur".
5. Þá munu augu hinna blindu upp lúkast,
og opnast eyru hinna daufu; 6. þá mun hinn
halti létta sér, sem hjørtur, og túnga hins
mállausa fagna lofsýngjandi: því vatnslyndir
spretta upp í eydimørkinni, og árstraumar á
øræfunum. 7. Sólbrunnar audnir skulu verda
ad tjørnum, og þurrar lendur ad vatnsrásum.
Þar sem ádur lágu drekar, þar skal reyr og
sef liggja í leg eins og gras. 8. Þar skal
verda brautar vegur; sú braut skal kallast hin
helga: einginn, sem óhreinn er, skal þá braut
gánga. Drottinn mun sjálfur leidbeina þeim,
og hinir einføldu skulu eigi fara villir vega.
9. Þar skal ekkért ljón vera, og ekkért gleps-
andi dýr skal þar um fara eda stadar nema;
hinir endurleystu skulu þar gánga. 10. Þeir
hinir endurkeyptu Drottins skulu aptur hverfa,
og koma med føgnudi til Síonsborgar; eilíf
gledi skal leika yfir høfdi þeim: føgnudur og
kjæti skal falla í skaut þeirra, en hrygd og
andvarpan á burtu víkja.

## 36. Kapítuli.

*Frá Rabsaka, hershøfdíngja Senakeribs.*

1. Svo bar til á 14da. ríkisári Esekíass
Konúngs, ad Senakerib Assýra Konúngur fór
herfør gégn øllum víggyrdtum borgum Júda-
ríkis, og tók þær. 2. Þá sendi Assýra Kon-
úngur Rabsaka med miklum lidstyrk frá Lak-
isborg til Jerúsalemsborgar móti Esekías
Konúngi; hann nam stadar hjá veituskurdi
hinnar efri tjarnar, á veginum vid akur bleik-
jarans. 3. Þá geingu þeir út til hans, Elja-
kim Hilkíasson dróttseti, Sebna kanseleri og
Jóak Asapsson ritari. 4. Rabsaki mælti til
þeirra: Segid Esekíasi: Svo segir hinn mikli
Konúngur, Assýra Konúngur: hvørt er þad
athvarf, er þú treystir á? 5. Þad er ætlan
mín, ad þín rádastofnan og hernadarstyrkur
sé eintómt hégómamál. Á hvørn treystir þú
nú, ad þú skulir gjøra uppreisn í gégn mér?
6. Þú munt reida þig á Egyptaland, þann
hinn brákada reyrsprotann, sem stíngst í gégn-
um hønd hvørs þess, er vid hann stydst. Eins
er Faraó Konúngur øllum þeim, er á hann
treysta. 7. Svo er og um þad, er þú segir
vid mig: „vér reidum oss á Drottinn, vorn
Gud". Er þad ekki hann, hvørs fórnarhæd-
ir og ølturu Esekías hefir afmád a), og sagt
til Júdaríkismanna og Jerúsalemsborgarmanna:
„fyrir þessu altari b) skulud þér fram falla og
tilbidja"? 8. Kom til og vedja vid Drottinn
minn, Konúng Assýríumanna: eg vil géfa þér
tvø þúsund hesta, ef þú gétur fengid þér jafn-
marga riddara. 9. Hvørnig máttu reisa rønd
vid einum høfudsmanni medal hinna minnstu
þjóna Drottins míns? og þó reidir þú þig
á hervagna og riddaralid Egyptalands! 10.
Hugsar þú, ad eg hafi farid upp híngad án
atkvæda Drottins, til ad leggja í eydi land
þetta? Nei, Drottinn sagdi til mín: far þú
inn í þetta land, og legg þad í eydi! 11.
Þá søgdu þeir Eljakim, Sebna og Jóak til
Rabsaka: Tala þú til vor, þjóna þinna, á
sýrlendsku, því vér skiljum þad mál; en tala
eigi til vor á Júdatúngu, í áheyrn fólksins,
sem uppi er á borgarveggnum. 12. Rabsaki

V. 7. *a.* Senakerib hefir heyrt eitthvad sagt frá þeirri sidabót, sem Esekías kom á í ríki sínu (2 Kóng. 18, 4. 2 Kron. 31, 1), en ekki skilid rétt, hvørnig á henni stód. *b.* Fyrir altarinu í Jerúsalemsborg, 2 Kóng. 18, 22. 2 Kron. 29, 20 — 1. 29.

svaradi: hefir nokkud minn herra sendt mig til þíns herra eda til þín, til þess ad flytja þetta erindi? Hefir hann ekki sendt mig til þeirra manna, sem þar sitja uppi á borgarveggnum, og eiga þann kost fyrir höndum ásamt med ydur, ad eta sinn eiginn vallgáng og drekka þarfagáng a) sinn? 13. Þá gékk Rabsaki fram, og kalladi hárri röddu á Júdatúngu og mælti: Heyrid ord hins mikla Konúngs, Assýríu Konúngs! 14. Svo segir Konúngurinn: Látid eigi Esekías tæla ydur, því hann fær ekki frelsad ydur. 15. Látid eigi Esekías koma ydur til ad treysta á Drottinn, med því ad segja: „Drottinn mun vissulega frelsa oss; þessi borg skal ekki verda Assýríu Konúngi í hendur seld". 16. Hlýdid eigi Esekíasi, því segir Assýríu Konúngur: ef þér takid mér vingjarnlega og gángid á hönd mér, þá skal hvörr ydar mega eta af sínum vínvidi og fíkjutré, og drekka vatn af sínu vatnsbóli, 17. þar til er eg kém, og flyt ydur til þess lands, sem er jafnast vid ydar land, til þess lands, sem er gott kornland og vínland, braudland og víngardaland. 18. Látid eigi Esekías tæla ydur, er hann segir: „Drottinn mun frelsa oss". Hafa nokkud annara þjóda gudir frelsad hvörr sitt land af hendi Assýra Konúngs. 19. Hvar eru gudir Hamatsborgar og Arpadsborgar (10, 9)? Hvar eru gudir Seffarvasimsborgar? og hafa nokkur god frelsad Samaríu af minni hendi? 20. Hvör eru þau af godum allra þessara landa, er frelsad hafi lönd sín undan minni hendi? Skyldi þá Drottinn fá frelsad Jerúsalemsborg af minni hendi? 21. Menn þögdu og svörudu honum aungvu; því Konúngur hafdi bodid og sagt, ad menn skyldu aungvu ansa honum. 22. Eptir þad fóru þeir Eljakim Hilkíasson dróttseti, Sebna kanseleri og Jóak Asapsson ritari til Esekíass med sundurrifnum klædum, og sögdu honum frá ordum Rabsaka.

## 37. Kapítuli.

*Frá æfilokum Senakeribs.*

1. En er Esekías Konúngur heyrdi þetta, þá sundurreif hann sín klædi, tók sorgarbúníng, og gékk í hús Drottins. 2. Hann sendi dróttsetann Eljakim og Sebna kanselera og hina elldstu kénnimenn, íklædda hrygdarbúníngi, til Esajasar spámanns Amossonar. 3. Þeir skyldu tala til hans þessum ordum: Svo segir Esekías: þessi dagur er dagur neydarinnar, hegníngarinnar og hádúngarinnar; börnin eru ad fædíngu komin, en einginn mátturinn til ad fæda b). 4. Vera má, ad Drottinn, þinn Gud, gési gaum ad ordum Rabsaka, þess er sendur er af herra sínum, Konúngi Assýríumanna, til ad spotta Gud lifanda, og láti hegnt verda þeirra orda, er Drottinn, þinn Gud, hefir heyrt. Bid því fyrir þeim eptirleifum (lýdsins), sem enn finnast hér. 5. En er þjónar Esekíass Konúngs komu til Esajass, 6. þá mælti Esajas til þeirra: Segid svo ydrum herra: Svo segir Drottinn: óttast eigi þau hádsyrdi, er þú hefir heyrt sveina Assýríu Konúngs láta sér um munn fara í gégn mér. 7. Eg skal láta hann verda annars hugar: hann skal fá fregn nokkura ad heyra, og þá skal hann hverfa aptur heim í land sitt, og skal eg þá láta hann fyrir sverdi falla í sínu eigin landi.

8. Rabsaki hafdi frétt, ad Assýríu Konúngur væri burt farinn frá Lakisborg; hvarf hann því aptur, og fann Konúnginn, þar sem hann herjadi á Libnaborg. 9. Þar kom Konúngi sú fregn af Tírhaka Blálands Konúngi, er þad sagdi, ad Tírhaki væri farinn í hernad

V. 12. *a.* Sökum drykkjar skorts og matleysis í umsátrinu.
hendi, ad ekki verdur úr greidt.

V. 3. *b.* Málsháttur, þ. e. þau vandrædi bera nú ad

móti honum; og er hann heyrdi það, sendi hann sendimenn til Esekíass með þessum boðum: 10. Segid Esekíasi Júdaríkis Konúngi svolátandi bodskap: lát eigi Gud þinn, þann er þú treystir á, tæla þig, þó hann segi, ad Jerúsalemsborg skuli eigi seld verda í hendur Assýra Konúngi. 11. Þú munt ad vísu heyrt hafa, hvørju Assýríu Konúngar hafa fram farid vid ønnur ríki, ad þeir hafa eydilagt þau; skyldir þú þá klaklaust af komast? 12. Hafa nokkud gudir heidíngjanna frelsad þær borgir, er foreldrar mínir hafa í eydi lagt, Gósansborg, Haransborg, Rezepsborg og Edensborgar innbyggjendur, þá er (fyrrum) bjuggu í Telassarsborg? 13. Hvar er Konúngur Hamatsborgar, og Konúngur Arpadsborgar, og Konúngur Seffarvajimsborgar, Heinaborgar og Ivuborgar?

14. En er Esekías hafdi tekid vid bréfinu af sendimønnunum, og lesid það, gékk hann upp í Drottins hús, og rakti það sundur frammi fyrir Drottni. 15. Þá bad Esekías til Drottins, svo mælandi: 16 Drottinn allsherjar, Israels Gud, þú sem situr uppi yfir Kerúbunum! þú einn ert sannur Gud yfir øllum ríkjum veraldar, þú hefir gjørt himin og jørd. 17. Hneig þitt eyra, Drottinn, og heyr! Upplúk, Drottinn, þínum augum, og sjá! Heyr þú øll ord Senakeribs, þau er hann hefir látid sér um munn fara til smánar vid hinn lifanda Gud! 18. Satt er það, Drottinn, ad Assyríukonúngar hafa í eydi lagt allar þjódir og lønd þeirra, 19. og godum þeirra í eld kastad: því þau voru ekki gudir, heldur handaverk manna, stokkar og steinar, svo þeir gátu gjørt þau ad aungvu. 20. En nú, Drottinn, vor Gud, frelsa þú oss af hans hendi, svo øll ríki veraldar megi vid kannast, ad þú ert Drottinn, og eingi annar.

21. Því næst sendi Esajas Amosson til Esekíass, og lét segja honum: Svo segir Drottinn, Gud Israels: hvad þeirri bæn vidvíkur, er þú hefir bedid til mín um Senakerib Assyríukonúng, 22. þá er þetta það ord, er Drottinn hefir talad í gégn honum: Síonsborgar mey fyrirlítur þig, og gjørir gys ad þér; Jerúsalemsborg hristir høfudid á eptir þér. 23. Hvørn hefir þú smánad og spottad? Igégn hvørjum hefir þú upphafid raustina, og lypt upp augum þínum í hædirnar? Igégn hinum heilaga (Gudi) Israels. 24. Fyrir hønd þinna þjónustumanna hefir þú Drottni hádúng tillagt, og sagt: „fyrir fjølda sakir hervagna minna hefi eg upp stígid á hædir fjallanna, lengst inn á Líbanonsfjall, afhøggvid þess háfu sedrustré, þess útvøldu grenitré, og em upp kominn á þess efsta tind, þángad sem mætist vidarskógurinn og aldinskógurinn; 25. eg gróf til vatns, og drakk: med iljum fóta minna uppþurkadi eg øll vatnsføll Egyptalands“. 26. Hefir þú þá ekki heyrt, ad eg gjørdi þá rádstøfun fyrir laungu, og hagadi þessu svo fyrir øndverdu? nú hefi eg látid það fram koma, ad þú skyldir mega í eydi leggja víggyrdtar borgir, og gjøra þær ad audum grjóthrúgum; 27. og innbyggjendur þeirra hefi eg látid verda aflvana, felmtrada og svívirdta, eg hefi látid þá verda sem vallargras, sem grængresi, eins og gras á þekjum, eins og akur þann, er svidnar, ádur en kornstaungin er sprottin. 28. Eg veit, hvar þú hefir þitt adsetur, hvar þú gengur út, og hvar þú gengur inn; eg veit, ad þú ædir í gégn mér. 29. En søkum þess ad þitt grimdaræði gégn mér og þinn ofmetnadur er kominn mér til eyrna, þá vil eg leggja minn hríng í nasir þínar, og minn bitil í munn þér, og færa þig aptur sama veg og þú komst. 30. Þetta skaltu til marks hafa: eitt árid munud þér eta sjálfsáid korn, hid annad ár sjálfvaxid korn, en hid þridja árid munud þér sá og uppskéra,

V. 16. Kerúbunum, sem voru uppi yfir sáttmálsørkinni, Sálm. 99, 1. Sjá 2 Mós. 25, 22.

planta víngarda og eta ávøxtu þeirra. 31. Hin-
ir frelsudu Júdaríkis innbúar, sem eptir verda,
skulu festa rætur ad nedan, og bera ávøxt ad
ofan; 32. Því frá Jerúsalemsborg skulu eptir-
leifar (þjódarinnar) útbreidast og hinir frelsudu
frá Síonsfjalli; ástríki Drottins allsherjar mun
slíku valda. 33. Þess vegna segir Drottinn
svo um Assýríu Konúng: Hann skal ekki inn
komast í þessa borg, eingri ør þángad inn
skjóta, eingann herskjøld ad henni bera, og
eingum jardhrygg upp hleypa móti henni. 34.
Hann skal aptur snúa hinn sama veg sem hann
kom, og ekki koma í þessa borg, segir Drott-
inn; 35. eg vil vera skjól og skjøldur þess-
arar borgar og frelsa hana, mín vegna, og
vegna míns þjóns Davíds.

36. Því næst útgékk Eingill Drottins, og
sló í herbúdum Assýríumanna hundrad áttatýgi
og fimm þúsundir manns. Og er menn risu
upp um morguninn, var allt fullt af daudum
líkum. 37. Senakerib Assýra Konúngur brá
þá herbúdum, héldt af stad og snéri heim apt-
ur, og settist ad í Níníve. 38. En svo bar vid,
þá hann badst fyrir í hofi Nísroks, síns Guds,
ad synir hans, Adramelek og Sarezer, unnu
á honum med sverdi, flýdu sídan burt í landid
Ararat, en sonur hans Esarhaddon vard Kon-
úngur í stad hans.

## 38. Kapítuli.

Sjúkleiki Esekías Konúngs, og lofsaungur hans.

1. Um þær mundir fékk Esekías sjúkleika
svo mikinn, ad honum héldt vid bana. Þá
kom spámadurinn Esajas Amosson til hans og
mælti: Svo segir Drottinn: rádstafa þú þínu
húsi, því þú skalt deya, en ekki lifa. 2. Þá
snéri Esekías andliti sínu til veggjar, bad til
Drottins, 3. og sagdi: eg bid, minnstu þess,
Drottinn, hvørsu eg hefi fram gengid fyrir
þínu augliti med stadfestu og trúnadartrausti,
og gjørt hvad þér hefir vel líkad. Grét Esekí-
as þá mjøg. 4. Þá taladi Drottinn til Esa-
jasar þessum ordum: 5. Far og seg Esekíasi:
Svo segir Drottinn, Gud Davíds, fødur þíns:
eg hefi heyrt þína bæn, og sjed þín tár. Sjá
þú! eg vil enn leggja fimtán ár vid aldur
þinn; 6. eg vil frelsa þig og þessa borg af
hendi Assýra Konúngs, og vera skjól og skjøld-
ur þessarar borgar. 7. Þetta skaltu til marks
hafa af Drottni, ad Drottinn vilji efna þad,
sem hann hefir lofad: 8. Sjá þú! eg skal
færa aptur um tíu stig þann pallaskugga, er
sólinni hefir munad nidur á vid á Akasar
pøllum, svo ad sólin skal þokast aptur á pøll-
unum um þau tíu stig, sem hún hefir geng-
id nidur.

9. Saungur Esekíass Júda Konúngs, þá
hann var heill ordinn þess sjúkleika, er hann
hafdi leigid í: 10. Eg sagdi: á hádegi
míns lífs hlýt eg ad gánga gégnum daudans
dyr, mér verdur burtu svipt í blóma aldurs
míns. 11. Eg sagdi: eg fæ ekki framar ad
sjá Drottinn, Drottinn (fæ eg ekki framar ad
sjá) á landi lifendra; eg fæ ekki framar menn
ad líta, eptir þad ad eg er kominn til þeirra,
sem búa í ríki enna daudu. 12. Minni tjald-
búd er kipt upp, og svipt í burtu frá mér,
eins og ødru hirdistjaldi; mínir lífdagar verda
afskornir, eins og þrædir í vef: hann slítur
mig frá hinum smágjørvu taugunum; þú þjáir
mig frá því ad dagar, og þar til nóttin kém-
ur. 13. Eg þreydi til morguns: øll mín
bein voru kramin, eins og af ljónshrammi;
þú þjáir mig frá því ad dagar, og þar til
ad nóttin kémur. 14. Eg tísti, sem svala,
og kurradi, sem dúfa; augu mín mændu til

V. 11. Ad sjá Drottinn, þ. e. ad sjá dýrdina Drottins í hans heilaga musteri. Á landi lifendra, þ. e. í þessu jardneska lífi.

himins, alvaldi Gud, eg em ángistarfullur, líkna þú mér! 15. En hvad skal eg nú segja? Hann taladi til mín, og hann efndi sín ord; eg skal gánga (til Drottins húss) alla mína lífdaga, því minni sálar ángist er létt. 16. Alvaldi Gud! af þínu ordi lifa (allir) menn, og á því einu rídur lífid míns anda: þú veitir mér styrkinn, þú vidheldur mínu lífi. 17. Sjá! mín megna sálar ángist er ordin ad fró; af elsku þinni dróst þú mig upp úr gryfju eydileggíngarinnar, því þú varpadir øllum mínum syndum á bak þér aptur. 18. Myrkraríkid lofar þig ekki, daudinn vegsamar þig ekki, þeir, sem í grøfina eru nidur stignir, vídfrægja ekki þína trúfesti; 19. sá einn lofar þig, sem lifir, eins og eg í dag: fadirinn kunngjørir børnunum þína trúfesti. 20: Drottinn er mitt hjálpræði; í húsi Drottins skulum vér hreifa strengina minna harpna alla vora lífdaga.

21. Esajas hafdi sagt, ad taka skyldi fíkjudeig, og leggja vid meinid; vard Konúngurinn þá heill. 22. Esekías hafdi spurt: hvad skal eg hafa til marks um þad, ad eg megi aptur upp gánga i Drottins hús?

## 39. Kapítuli.

Dramblæti Esekíass Konúngs.

1. Um þær mundir sendi Babels Konúngur, Meródak Bal-Adan, sonur Bal-Adans, bréf og gjafir til Esekíass, því hann hafdi frétt, ad hann hefdi sjúkur verid, en væri nú aptur heill ordinn. 2. Esekías vard vid þetta gladur, og og sýndi sendimønnunum fjárhirdslu sína, silfur og gull, kryddjurtir og dýrleg smyrsl, allar vopnahirdslur sínar, og allt þad fémætt, er til var í fjársjódum hans; var eingi sá hlutur í høll Esekíass eda nokkurstadar í ríki hans, ad eigi sýndi hann þeim. 3. Þá kom Spámadurinn Esajas til Esekíass Konúngs, og sagdi til hans: hvørt var erindi þessara manna, og hvadan komu þeir til þín? Esekías svaradi: þeir komu til mín af fjarlægu landi, frá Babel. 4. Hann spurdi aptur: hvad sáu þeir í høll þinni? Esekías svaradi: þeir sáu allt, sem til er innanhallar; og eingi er sá hlutur í fjárhirdslum mínum, ad eg hafi eigi sýnt þeim. 5. Þá mælti Esajas til Esekíass: Heyr þú ord Drottins allsherjar! 6. Sjá þú, þeir dagar munu koma, ad allt þad sem er í høll þinni, og þad sem foreldrar þínir hafa saman dregid allt til þessa dags, þad mun flutt verda til Babels, svo ad ekkért skal eptir verda, segir Drottinn; 7. og nokkurir af sonum þínum, sem af þér koma og sem þú munt eignast, munu teknir verda og gjørdir ad herbergissveinum í høll Babels Konúngs. 8. Esekías sagdi til Esajass: gott er þad ord Drottins, er þú segir; því allt verdur fridt, sagdi hann, og øllu óhætt um mína daga.

## 40. Kapítuli.

Umbót á hag Gydíngalýds; Gud sjálfur nálægir sig, til ad frelsa sitt fólk; honum skyldu Gydíngar treysta, en ekki vanmáttugum mønnum eda hégómlegum skurdgodum.

1. Huggid, huggid mitt fólk (þér spámenn!) segir ydar Gud. 2. Talid huggunarord til Jerúsalemsborgar, og kunngjørid henni, ad hennar ánaud sé á enda, og hennar sekt goldin, og ad hún medtekur af Drottins hendi tvøfalda umbun fyrir øll hennar syndagjøld. 3. Røddin kallar: Greidid Drottni veg í eydimørkinni, jafnid brautir Gudi vorum í óbygdinni; 4. sérhvørr dalur skal hækka, hvørt fjall og háls lækka; hólarnir skulu verda ad jafnsléttu, og brattir hamrar ad flatlendi. 5. Dýrdin Drottins mun opinber verda, svo allir daudlegir menn skulu sjá, ad þad er Drottinn, sem talar.

21. og 22. vers eru útskýríng yfir þad 5. og 8, sjá 2 Kóng. 20, 7. 8.

6. Rödd nokkur sagdi: kalla þú! Hann sagdi: hvad skal eg kalla? — Allt hold er sem gras, og allt þess ágjæti sem akurblóm. 7. Grasid visnar, blómid fölnar, þegar andi Drottins blæs á þad. Í sannleika, mennirnir eru sem gras. 8. Grasid visnar, blómid fölnar, en ord vors Guds stendur stödugt eilíflega. 9. Síon, þú sem flytur fagnadartídindin, stíg þú upp á hátt fjall! Hef upp þína raust kröptuglega, þú Jerúsalemsborg, sem fagnadarbodskapinn flytur! Hef upp raust þína, og óttast eigi! Seg þú borgunum í Júdaríki: Sjáid, ydar Gud kémur. 10. Sjáid, Drottinn hinn alvaldi kémur volduglega, og hans armleggur skal drottna. Sjáid, hans endurgjald fylgir honum, og hans umbun fer á undan honum. 11. Hann fædir sína hjörd, sem hirdir, tekur únglömbin í fadm sér og ber þau í fangi sínu, en leidir mædurnar. 12. Hvörr innilykur hafid í hnefa sér, og mælir himininn med spönn sinni? Hvörr mælir dupt jardarinnar í mæliкéri? Hvörr vegur fjöllin á reidslu og hálsana á metaskálum? 13. Hvörr hefir leidbeint anda Drottins, hvörr hefir hans rádgjafi verid og frædt hann? 14. Hvörn hefir hann sókt ad rádum, þann er gjæfi honum skilníng og kénndi honum leid réttvísinnar, uppfræddi hann í þekkíngu, og vísadi honum veg vitskunnar? 15. Sjá, þjódirnar eru fyrir honum sem dropi í vatnsskjólunni, og sem gróm á metaskálinni. Sjá, hann sveipar burtu fjarlægum landsálfum, eins og ryki. 16. Líbanons skógur hrökkur ekki til eldsneytis, og ekki dýr hans til brennifórna. 17. Allar þjódir eru sem ekkért fyrir honum, minna enn ekki neitt og sem hégómi í hans augum. 18. Vid hvörn viljid þér þá samlíkja Gudi, og hvörja líkneskju viljid þér taka til jafns vid hann? 19. Meistarinn steypir líkneskid, gullsmidurinn býr þad med slegnu gulli, og steypir þar til silfurfestar; 20. en sá sem sjer í kostnadinn, velur sér þann vid, sem ekki fúni, og leitar ad högum smid, er reist géti svo líkneskju, ad ekki velti. 21. Vitid þér þad ekki? hafid þér ekki heyrt þad? hefir ydur eigi verid kunngjört þad frá upphafi? hafid þér eingan skilníng á því, hvörr lagt hafi grundvöll jardarinnar? 22. Þad er hann, sem býr uppi yfir jardarkrínglunni, fyrir hvörjum þeir, sem á henni búa, er sem eingisprettur. Hann þenur út himininn, sem þunna vod, og slær honum sundur, eins og ödru tjaldi, til ad búa í. 23. Hann gjörir landshöfdíngjana ad eingu, og drottna jardarinnar ad hégóma: 24. varla eru þeir gródursettir, varla nidur sánir, varla hefir stofn þeirra nád ad festa rætur í jördinni, fyrr enn hann andar á þá, og þá skrælna þeir upp, þá feykir stormbylurinn þeim burt, eins og hálmleggjum. 25. Vid hvörn viljid þér þá samjafna mér? segir sá hinn heilagi. 26. Hefjid upp augu ydar í hædirnar, og litist um. Hvörr hefir skapad þessi (himintúngl)? Hvörr hefir útleidt þeirra her med tölu, og kallad þau öll med nafni? Sökum mikilleiks hans krapta og sökum hans volduga máttar verdur einskis þeirra vant. 27. Hví takid þér þá svo til orda, Jakobs nidjar? hví mælid þér svo, Ísraelsmenn: „hagir mínir eru fólgnir fyrir Drottni, minn Gud leidir hjá sér, ad reka réttar míns"? 28. Veistu ekki, hefir þú ekki heyrt, ad Drottinn, hinn eilífi Gud, er skapad hefir endimörk jardarinnar, hann þreytist ekki, hann vanmegnast ekki, hans vitska er óransakanleg; 29. hann veitir krapt hinum þreytta, og gnógan styrk hinum þróttlausa. 30. Hinir úngu þreytast og vanmegnast, æskumennirnir hníga; 31. en þeir, sem vona

V. 16. Drottinn er svo mikill og hátignarfullur, ad honum verdur ekki þjónad verduglega med nokkurum fórnfæringum, hvörsu miklar og stórar sem vera kunnu.

á Drottinn, fá nýan krapt: þeir fljúga upp á
vængjum, sem ernir: þeir hlaupa, og mædast
ekki, þeir gánga, og lýast ekki.

## 41. Kapítuli.

Hégómi skurdgodadýrkunarinnar.

1. Þegid, og hlýdid mér, þér fjarlægu lønd-
in! Safni þjódirnar nýum krøptum, gángi svo
nær, og tali máli sínu; vér skulum eigast løg
vid. 2. Hvørr stefnir hjálparanum úr austur-
átt, og kvedur hann til fylgdar vid sig? Hvørr
leggur þjódirnar undir hans vald og lætur hann
drottna yfir konúngunum? Hvørr lætur þá verda
eins og moldarryk fyrir sverdi hans, og eins
og fjúkandi hálmleggi fyrir boga hans, 3. svo
hann veitir þeim eptirfør, og fer fram granda-
laust þann veg, sem fætur hans hafa aldrei á
stigid? 4. Hvørr gjørir og framkvæmir slíkt?
Hann sem kalladi fram kynþáttu mannanna í
øndverdu. Eg Drottinn em hinn fyrsti, og med
hinum sídustu em eg einnig. 5. Fjarlægar
landsálfur sjá þad, og hrædast; endimørk jard-
arinnar skjálfa. Þjódirnar nálgast, og koma.
6. Hvørr þeirra hjálpar ødrum, og segir til
hins: vertú óhræddur. 7. Trésmidurinn upp-
ørvar gullsmidinn, og járnsmidurinn járnrekstr-
armanninn: „þetta er gód samsuda", segir hann,
neglir sídan smídid saman, svo ekkért haggast.
8. En þú Ísraelslýdur, minn þjón! þér ætt-
nidjar Jakobs, er eg hefi útvalid! afsprengi
Abrahams, ástvinar míns! 9. Þú, hvørn eg
þreif frá endimørkum jardarinnar, og kalladi
frá hennar ytstu landsálfum, og sagdi til þín:
„þú ert minn þjón, eg hefi útvalid þig, en
ekki hafnad þér"! 10. óttast þú eigi, því eg em
medur þér; eigi skaltu ørvílnast, því eg em þinn
Gud: eg styrki þig, eg hjálpa þér, eg held þér
med minni trúfastri hægri hendi. 11. Sjá,
allir fjandmenn þínir skulu verda til skammar
og háddúngar; søkunautar þínir skulu ad aungvu
verda, og tortýnast, 12. svo þú skalt ekki finna
þá, þó þú leitir; þrætudólgar þínir skulu verda
ad eingu; þeir, sem á þig herja, skulu undir lok
lída: 13. því eg em Drottinn, þinn Gud, sem
held í þína hægri hønd, og segi til þín: „óttast
eigi, eg hjálpa þér". 14. Óttast eigi, þú yrm-
língur Jakobs, þér Ísraels menn! Eg hjálpa
þér, segir Drottinn og þinn frelsari, hinn hei-
lagi Ísraels Gud: 15. Sjá þú, eg gjøri þig
ad hvøssum, nýum þreskivagni, med mørgum
eggjabroddum; þú skalt sundurþreskja fjøllin og
mylja þau í smátt, og gjøra hálsana ad hismi:
16. þú skalt sáldra þeim, svo vindurinn skal
feykja þeim og stormbylurinn tvístra þeim. En
þú skalt gledja þig í Drottni, og hrósa þér af
hinum heilaga Gudi Ísraels. 17. Hinir fá-
tæku og volúdu leita vatns, og finna ekki, túnga
þeirra þornar af þorsta: eg Drottinn vil bæn-
heyra þá, eg, Ísraels Gud, vil ekki yfirgéfa
þá. 18. Eg vil láta vatnsstrauma upp vella
á hálsunum og vatnslindir á midju sléttlend-
inu; eg vil gjøra eydimørkina ad vatnstjørn-
um, og þurrlendid ad uppsprettubrunnum. 19.
Í óbygdinni vil eg gródursetja sedrustré, belg-
þornsvid, myrtusvid og vidsmjørstré; á sønd-
unum vil eg setja hvad med ødru, furu, beyki-
tré og búsvid, 20. svo allir menn sjái og
þekki, verdi varir og skynji, ad hønd Drottins
hefir slíku til vegar komid, og sá hinn heilagi
Gud Ísraels skapad þad.

21. Berid nú fram ydvart málefni, segir
Drottinn; færid fram varnir ydar, segir kon-

V. 2. Hjálparanum, Sýrusi Persa Konúngi; í Hebr. stendur réttlætinu þ. e. hjálprædinu. V. 6. 7. Spámadurinn lætur heidingjana gjøra samtøk móti Drottni, med því ad smída nýar godalíkneskjur, til þess ad fyrirkoma þeirri rádstøfun hans, ad Sýrus legdi undir sig Babelsríki og frelsadi sitt fólk, Gydingalýd; smídid þ. e. líkneskjuna. V. 9. Endimørk jardarinnar og hennar ytstu landsálfur er Egyptaland, sem var þad vesilægasta land, er Gydingar þá þektu. V. 14. Yrmlíngur Jakobs, þ. e. þér vanmáttugu og fyrirlitnu Jakobs nidjar.

úngur Jakobsnidja. 22. Láti þeir (god sín) koma fram, ad þau kunngjøri oss, hvad verda muni. Segid þá atburdi, er ordid hafa fyrr meir, svo vér gétum hugleidt og vitad afleidíngar þeirra, eda þá látid oss heyra, hvad seinna meir muni fram koma. 23. Kunngjørid, hvad hér eptir muni verda, og þá skulum vér vidurkénna, ad þér séud gudir. Látid sjá, gjørid annadhvørt af ydur gott eda íllt: þá munum vid ásjást og hafa augastad hvorir á ødrum. 24. Sjaid nú! þér erud minna enn ekkért, og verk ydar minna enn ekki neitt. Vidurstyggilegur er hvørr sá, sem kýs ydur fyrir sína fulltrúa. 25. En eg uppvek einhvørn frá nordurátt, og sá mun koma; allt í frá uppgaungu sólar mun hann ákalla mitt nafn; hann mun gánga yfir landstjórana, eins og madur geingur yfir leir, og eins og leirkérasmidur tredur deigulmó. 26. Hvørr (af hjágudunum) hefir sagt slíkt frá øndverdu, svo vér gétum vitad þad, eda spád því fyrir fram, ad vér gétum sagt, „þad hefir rættst"? Nei, þar er eingi, sem kunngjøri slíkt, eingi sem láti til sín heyra, eingi, sem heyri nokkurt ord af ydur. 27. Eg em hinn fyrsti, sem segi til Síonsborgar: „sjá þú! þar er þad framkomid", og til Jerúsalemsborgar: „eg skal láta fagnadartídindi koma". 28. Eg litast um, en einginn er vidlátinn; eg leita á medal þeirra, en einginn veitir neinn úrskurd; eg adspyr þau, svo þau megi andsvara. 29. Sjá! þau eru øll einber hégómi; þeirra verk eru ekkért, líkneskjur þeirra eru vindur og hjóm.

## 42. Kapítuli.

Drottins þjón; lofsaungur Gudi til dýrdar; Guds réttlæti og miskunsemi.

1. Sjá! mínum þjóni, sem eg leidi vid hønd mér, mínum útvalda, á hvørjum eg hefi velþóknan, honum hefi eg minn anda géfid; hann mun kunngjøra þjódunum, hvad rétt er. 2. Hann mun ekki kalla, ekki hafa háreysti, og ekki heyra láta raust sína á strætunum. 3. Hinn brákada reyrinn mun hann ekki í sundur brjóta, og hinn dapra línkveik mun hann ekki útsløkkva; hvad rétt er, mun hann trúlega kunngjøra. 4. Hann mun ekki daprast og ekki uppgéfast, uns hann fær komid réttri skipun á landid, og fjarlægar landsálfur mnnu eptir hans løgmáli vænta. 5. Svo segir Gud Drottinn, sá er skóp himininn og útþandi hann, sá ed útbreiddi jørdina med øllu því, er á henni sprettur, sá ed andardrátt géfur þjódum jardarinnar, og lífsanda þeim, sem á henni gánga: 6. Eg Drottinn hefi kallad þig til hjálprædis, eg held í hønd þína og gæti þín; eg set þig til þess ad stadfesta sáttmála þjódarinnar, og til ad vera ljós heidíngjanna, 7. til ad opna þau hin blindu augun, og til ad útleida úr vardhaldinu þá sem bundnir eru, og úr díblissunni þá, er í myrkrunum sitja.

8. Eg em Drottinn; þad er mitt nafn; mína dýrd géf eg ekki hjágudum, né mitt lof úthøggnum líkneskjum. 9. Hinir eldri spádómar, þeir eru fram komnir, en nú kunngjøri eg nokkud nýtt, og læt ydur heyra þad, ádur enn nokkud vottar fyrir því. 10. Sýngid Drottni nýan lofsaung, flytjid hans lofstýr frá enda veraldar, þér sjófarendur og allir sem á hafinu búid, þér fjarlægu landsálfur og þeirra innbyggjendur! 11. Hátt kalli eydimørkin og hennar borgir, og tjaldbúdir þær, er Kedaríngar búa í; lofsýngi þeir, sem búa í Selaborg, kalli þeir fagnandi

V. 6. Stadfesta sáttmála þjódarinnar, stadfesta þann sáttmála, sem Gud gjørdi vid sitt fólk, uppfylla þau fyrirheit, sem þjódinni voru géfin. V. 11. Kedaríngar, hirdaraþjód í Arabia, komin af Kedar, syni Ismaels (1 Mós. 25, 13). sjá Es. 21, 17. Selaborg, á nordanverdri Arabia, í djúpum dal, innilukt af ógeingum fjøllum.

af fjallatindunum! 12. Géfi þeir Drottni dýrdina, og kunngjöri hans lof í hinum fjarlægu löndunum!

13. Drottinn fer út, sem hetja; hann elur á sínum hugmód, sem bardagamadur; hann kallar, hann lýstur upp herópi, hann sýnir sig voldugann yfir sínum óvinum. 14. Eg hefi í lánga tíma þagad, verid hljódur, og stillt mig; nú vil eg hljóda hátt, sem jódsjúk kvinna, eg vil hrinda frá mér öndinni, og géfa rúm reidi minni þegar í stad: 15. eg vil svída fjöllin og hálsana, og skrælna láta allt grængresi, sem á þeim vex: eg vil gjöra vatnsföllin ad þurrlendi, og láta stöduvötnin uppþorna. 16. En þá hina blindu vil eg leida um þá vegu, sem þeir ekki rata, eg vil færa þá um þá stigu, sem þeir ekki þekkja; myrkrid fram undan þeim vil eg gjöra ad ljósi, og krókóttar leidir ad beinni braut; þessu hefi eg heitid, og því skal eg ekki bregda. 17. Hinir skulu hörfa aptur á bak og verda sér til smánar, sem treysta úthöggnum skurdgodum, og segja til hinna steyptu líkneskjanna: „þér erud vorir gudir". 18. Heyrid, þér hinir daufu! lítid upp, þér hinir blindu, ad þér meigid sjá! 19. Hvörr er svo blindur, sem minn þjón, svo daufheyrdur, sem minn sendibodi, sá er eg útsendi? Hvörr er svo blindur, sem sá, er ætti ad adhyllast mig, svo blindur, sem þjón Drottins? 20. Þú sjer margt, en athugar þad ekki; þú hefir opin eyrun, en heyrir þó ekki. 21. Eigi ad sídur ann Drottinn þeim, sökum trúfesti sinnar; því hann vill gjöra sitt lögmál stórt og veglegt. 22. Og þó er þetta fólk rænt og ruplad, þeir eru allir fjötradir í gryfjum og byrgdir í myrkvastofum; þeir eru ordnir ad herfángi, án þess nokkur sé til ad frelsa þá; þeir eru ordnir ad ránsfeing, án þess nokkur segi: „skilid því aptur". 23. Hvörr er nú sá ydar á medal, sem géfa vilji gaum ad þessu? Hann taki eptir og athugi eptirleidis. 24. Hvörr var þad, sem lét Jakobsnidja verda ad herfángi, og seldi Ísraelsmenn ræníngjum í hendur? Var þad ekki Drottinn, hann, móti hvörjum vér syndgudum, á hvörs vegum þeir ekki vildu gánga, og hvörs lögmáli þeir ekki hlýddu. 25. Þess vegna jós hann yfir þá eldi sinnar reidi og styrjaldar ofsa; hún kveikti upp loga umhverfis í kríng um þá, en þeir skeyttu því ekki: hún brendi þá, en þeir sinntu því ekki.

## 43. Kapítuli.

Drottinn sannar enn Guddóm sinn med því, ad hann vilji vernda sitt fólk, Gydíngalýd, og frelsa þad úr Babels herleidíngu, ekki fyrir verdskuldun Gydínga, heldur af miskun sinni.

1. En nú segir Drottinn, sá er skóp þig, Jakobsætt, og myndadi þig, Ísraelslýdur: óttast eigi, því eg endurkeypti þig; eg kalladi þig med nafni, þú ert minn. 2. Þó þú gángir í gégnum vötnin, skal eg vera med þér; þó þú gángir í gégnum vatnsföllin, skulu þau ekki drekkja þér; þó þú gángir í gégnum eldinn, skaltu ekki brenna, og loginn skal eigi granda þér: 3. því eg Drottinn er þinn Gud, hinn heilagi Ísraels Gud er þinn frelsari; eg géf Egyptaland til lausnar þér, og læt Bláland og Sebaborg í stadinn þín; 4. sökum þess þú ert dýrmætur í mínum augum og mikils metinn, og af því eg elska þig, þá legg eg adra menn í sölurnar fyrir þig, og þjódirnar í stadinn þín. 5. Óttast því eigi, því eg er med þér; eg vil leida kynslód þína frá

---

V. 12. Géfa dýrdina, er hér sama sem ad vegsama. V. 16. Hina blindu, þ. e. Gydínga lýd, sjá 19. v. V. 19. Minn þjón, þ. e. Gydíngalýdur, samanb. 44, 2. 21: 41, 9. V. 1. Samanb. 41, 9. 44, 2. 24.

austri, og samansafna þér í frá vestri: 6. eg vil segja til norduráttar, „lát fram!", og til suduráttar, „hamla þú eigi! flyt þú sonu mína úr fjarlægdinni, og dætur mínar frá enda jardarinnar, 7. sérhvørn þann, er vid mitt nafn er kéndur, sem eg hefi skapad mér til vegsemdar, þann er eg hefi myndad og gjørt.

8. Lát nú fram koma þann lýdinn, sem blindur er, þó hann hafi augu; þá sem daufir eru, þó þeir hafi eyru. 9. Lát alla heidíngja safnast í eitt, og þjódirnar saman koma. Hvørr af þeim (skurdgodunum) kunngjørir slíkt, og lætur oss heyra fyrir fram, hvad verda muni? Leidi þau fram votta sína, ad þau færi sønnur á mál sitt, svo menn heyri þad, og segi, ad þau hafi satt ad mæla. 10. Þér erud mínir vottar (segir Drottinn) og þjón minn, þann er eg útvaldi, til þess þér skyldud kannast vid og trúa mér, og skilja, ad eg em þad; á undan mér er eingi gud tilbúinn; og eptir mig mun eingi vera. 11. Eg, eg em Drottinn, og eingi hjálpari er til, nema eg; 12. Eg bodadi hjálpina, og lét hana í té; þad var eg, sem kunngjørdi hana, en einginn útlendur ydar á medal; þér erud mínir vottar, segir Drottinn, ad eg em Gud; 13. já, ádur enn dagurinn vard til, var eg þad. Einginn er sá, er frelsa megi af minni hendi; eg kém mínu framm, hvørr fær aptrad því? 14. Svo segir Drottinn, ydar frelsari, hinn heilagi Israels Gud: ydar vegna vil eg senda (Sýrus) til Babelsborgar, og nidurbrjóta alla hennar slagbranda, og steypa Kaldeum, sem fagna med gledilátum á skipum sínum. 15. Eg Drottinn er ydar heilagur Gud, høfundur Israelslýds, ydar Konúngur. 16. Svo segir Drottinn, hann, sem lagdi veg í sjónum, og braut í hinum straungu vøtnum, 17. hann, sem útleiddi vagna og hesta, hermenn og kappa, sem féllu hvørr um annan og stódu ei á fætur aptur, slokknudu og kulnudu út, sem kveykur. 18. Rennid eigi huga til hins umlidna, géfid eigi gjætur ad því, sem sem var fyrr meir. 19. Sjáid, eg hefi nokkud nýtt fyrir stafni; þad tekur þegar ad votta fyrir því, þér skulud vissulega verda þess var: eg skal jafnvel gjøra veg í eydimørkinni og vatnsstrauma í óbygdinni. 20. Þá skulu skógardýrin, gullúlfarnir og strútsfuglarnir, vegsama mig; því eg géf vatn í eydimørkinni og árstrauma í óbygdinni, til ad drykkja minn lýd, minn hinn útvalda. 21. Þá skal sá lýdur, sem eg hefi tilreidt mér, vidfrægja mitt lof. 22. Mig hefir þú þó ekki ákallad, þú Jakobs ætt, því þú ert ordinn þreyttur á mér, þú Israelslýdur. 23. Mér færdir þú ekki saudfénad þinn til brennifórnar; mig dýrkadir þú ekki med sláturfórnum þínum; þad er ekki mín vegna, ad þú hefir mædt þig med matarfórnum og þreytt þig med reykelsisfórnum. 24. Þú keyptir ekki mér til handa ilmreyr fyrir silfur; mig saddir þú ekki á feitinni þinna sláturs-fórna. Nei, þú þreyttir mig med þínum syndum, og mæddir mig med þínum misgjørdum. 25. Eg, eg em sá, er afmái þínar yfirtrodslur sjálfs míns vegna, og minnist ekki þinna synda. 26. Minn mig á, — vid skulum eigast løg vid — seg mér, hvad þú hefir til afbøtunar. 27. Þinn fyrsti fadir syndgadi, og þínir túlkar brutu á móti mér. 28. Þess vegna mun eg fara med forstødumenn helgidómsins, eins og væru þeir vanheilagir, og ofurselja Jakobs ætt bølvaninni, og Israels nidja hádúnginni.

## 44. Kapítuli.

Drottinn sannar enn guddóm sinn med því ad hann muni sameina heidíngja og Gydínga, afmalun

V. 15. Høfundur, Hebr. Skapari, sjá v. 1. V. 27. Túlkar, þ. e. kénnimenn og falsspámenn.

skurdgodadýrkunarinnar; frelsun Gydínga úr her-
leidíngunni.

1. Heyr þó, minn þjón, þú affspríngur Ja-
kobs, og þú Israelslýdur, er eg útvaldi. 2.
Svo segir Drottinn, sá er þig hefir gjört og
myndad, og hjálpad þér allt í frá módurkvidi:
óttast þú eigi, minn þjón, affspreingi Jakobs,
þú affspríngur Israels, hvørn eg útvaldi! 3.
Því eg vil vatni ausa yfir hid þyrsta landid,
og árstraumum yfir þurrlendid; eg vil úthella
mínum anda yfir affspreingi þitt, og minni
blessan yfir þína afkomendur, 4. svo þeir skulu
vaxa, eins og gras á eingi, og sem vídir hjá
vatnslækjum. 5. Einn mun segja: „eg tilheyri
Drottni;" annar mun kénna sig vid Jakob;
þessi mun rita inni í hønd sína, „helgadur
Drottni", og nefna sig eptir Israel. 6. Svo
segir Drottinn, Kóngur og frelsari Israels-
lýds, Drottinn allsherjar: eg em hinn fyrsti,
og eg em hinn sídasti, og fyrir utan mig er eing-
inn Gud til. 7. Hvørr er sem eg, ad hann
ákvardi, kunngjøri og rádstofni þad (hid ó-
komna), eins og eg hefi gjørt, allt í frá því
er eg hóf þessa hina ørgømlu þjód? Kunn-
gjøri þau (skurdgodin) eins sínum dýrkendum
hid ókomna, og þad sem hér eptir mun verda!
8. Ottist því eigi, og skélfist eigi! Lét eg
þig ekki heyra þad, og kunngjørda eg þad ekki
laungu ádur? Þér erud mínir vottar; er nokk-
urr Gud til, nema eg? Nei, ekkért annad hellu-
bjarg er til, eg veit af aungvu ødru.

9. Allir þeir, sem tilbúa godalíkneskjur, eru
hégómi, og þeirra kostulegustu verk eru til eingr-
ar nytsemdar; þeir géta ekki rekid sig úr vitni
um þad, ad þær sjá ekkért og skynja ekkért, og
því hljóta þeir ad fyrirverda sig. 10. Hvørr
mundi géta tilbúid Gud, med því ad steypa
þad líkneski, sem til einskis er nýtt? 11. Sjá,
allir sem þar eiga hlut ad, verda ad blygdast
sín. Smidirnir sjálfir, þeir eru þó ekki nema
menn. Lát þá alla koma saman: þeir hljóta
þó ad standa smeikir og fyrirverda sig, hvørr
med ødrum. 12. Járnsmidurinn meitlar járn-
id í sundur, eldar þad vid glódina, og lagar
þad med hamrinum: hann vinnur járnid med
sínum sterka armlegg: hann sveltur svo ad hann
vanmegnast: hann drekkur ekki vatn, svo hann
verdur módur. 13. Trésmidurinn leggur mæli-
þrádinn á tréd, markar þad med raudsteini, heflar
og sirklar þad: sídan lagar hann þad ept-
ir einhvørri mannsmynd, og býr til úr því fagr-
an mann, til þess hann búi í (goda-) húsinu.
14. Hann høggur sér sedrustré, hardan vid og
eik, og velur um medal skógartrjánna, eda hann
gródursetur arantré, sem sprettur upp í regnskúrun-
um. 15. Af þessum trjám, sem menn hafa til
eldividar, tekur hann nokkud til ad verma sig vid,
hann kveykir eld vid þau og bakar braud; en
af þessum hinum sømu trjám gjørir hann
god, og tilbidur þad, hann býr til líkneski
af þeim, og fellur fram fyrir trjánum.
16. Helmíng trjánna brennir hann í eldi,
vid hinn helmínginn sýdur hann kjøt, sem
hann etur, steikir steik, og etur sig saddan; og
þegar hann er ordinn heitur, segir hann: „nú
þykir mér vænt, mér er heitt, og hefi ljósid til
ad horfa í!" 17. Ur því, sem þá er eptir,
gjørir hann godalíkneski handa sér, knékrýpur því,
fellur fram, tilbidur þad, og segir: „frelsa mig,
því þú ert minn Gud!" 18. Þeir hafa hvørki
skyn né skilníng; augu þeirra eru apturlukt, svo
þeir sjá ekki, og hjørtu þeirra, svo þau skynja
ekki. 19. Manninum dettur ekki í hug, hann
hefir ekki vitsmuni eda skilníng til ad hugsa med
sér: „helmíng þessa trés brenda eg í eldi, bakadi
braud vid glædur þess, steikti kjøt og át; skylda
eg þá búa til vidurstyggilegt god af því, sem af-
gángs er, og knéfalla fyrir trédrumbi?" 20.
Hann hleypur eptir hégómanum, hans táldregna
hjarta leidir hann afvega, svo hann fær ekki

sálu sinni borgid, og hann spyr því ekki sjálfan
sig: „eru þad ekki svik, sem eg hefi handa milli?“
21. Hugleid þetta, þú Jakobs ætt og Ísra-
els lýdur, því þú ert minn þjón, eg hefi tilbú-
id þig; þú, Ísraels lýdur, ert minn þjón, gleym
þú mér eigi! 22. Eg lét þínar misgjørdir burtu
hverfa, sem þoku, og þínar syndir, sem ský;
snú þér til mín, því eg em þinn frelsari. 23.
Lofsýngid, þér himnar, því Drottinn er máttug-
ur; kallid hátt, þér undirheimar; hefjid fagnad-
ar saung, þér fjøll, skógar og øll skógartré, því
Drottinn endurleysir Jakobs nidja, og gjørir sig
dásamlegan medal Ísraelsmanna. 24. Svo
segir Drottinn, þinn endurlausnari, sá er þig
hefir tilbúid í frá módurkvidi: Eg em Drottinn,
sá er skóp alla hluti, eg útþanda himininn al-
einn, og útbreiddi jørdina af eigin mætti mínum.
25. Eg ónýti tákn svikaranna, og gjøri lýgi-
spámennina ad fíflum; eg vísa vitríngunum apt-
ur, og gjøri vitsku þeirra ad heimsku. 26. Eg
stadfesti ord þjóna minna, og framkvæmi atkvædi
minna sendiboda; eg em sá, er segi um Jerúsal-
emsborg: „hún skal verda uppbygd“, og til Júda-
ríkis borga: „þér skulud verda uppbygdar“; og eg
reisi af nýu þá ena nidurbrotnu stadi. 27. Eg
segi til djúpsins: „þverra þú, eg vil láta þína
strauma uppþorna“. 28. Eg segi Sýrusi ad
vera minn hirdir, hann skal framkvæma allan
minn vilja, og segja til Jerúsalemsborgar: „þú
skalt uppbygd verda“, og til musterisins: „þú
skalt verda grundvallad“.

## 45. Kapituli.

Spádómur um Sýrus Persakonúng, og um frelsun Gydínga.

1. Svo segir Drottinn um Sýrus, sinn
smurda: eg held í hans hægri hønd; eg vil leggja
þjódirnar undir hans vald, og spretta belti kon-
únganna; eg vil upp láta dyrnar fyrir honum,
og aungvu borgarhlidi skal vera læst. 2. Eg
vil gánga á undan þér, og jafna hólana; eg vil
brjóta upp eirhlidin, og mølva járnslárnar. 3.
Eg vil gefa þér hina huldu fjársjódu og hina
fólgnu dýrgripi, svo þú kannist vid, ad eg em
Drottinn, Ísraels Gud, sem útvaldi þig. 4.
Vegna Jakobs, míns þjóns, og vegna Ísra-
els, míns hins útvalda, hefi eg kosid þig og
kvadt, jafnvel þó þú þekkir mig ekki. 5. Eg
em Drottinn, en einginn annar; eingi Gud er
til, nema eg. Þó þú þekkir mig ekki, vil eg
útbúa þig med krapti, 6. svo menn kannist vid
í frá uppgaungu sólar og frá nidurgaungu
hennar, ad eingi sé fyrir utan mig, ad eg em
Drottinn, og einginn annar: 7. ad eg em sá,
sem tilbý ljósid, og framleidi myrkrid, sem ræd
hamíngju og óhamíngju. Eg Drottinn ræd
øllu þessu. 8. Þér himnar, drjúpid hér ofan
ad! láti skýin hjálprædid niðurstreyma! jørdin op-
ni sig, svo frelsunin blómgist og hjálprædid fram-
spretti ásamt. Eg Drottinn kém þessu til vegar.
9. Vei þeim manni, sem þráttar vid Skap-
ara sinn, sjálfur leirbrot, eins og ønnur leir-
brot jardar. Á leirinn ad segja vid leirmynd-
arann: „hvad gjørir þú“? eda á verk þitt ad
segja um þig: „hann hefir eingar hendur“.
10. Vei þeim, sem segir til fødur síns: „hvar
fyrir hefir þú getid mig“? eda til módur sinn-
ar: „hví hefir þú fædt mig“? 11. Svo
segir Drottinn, hinn heilagi Gud og Skapari
Ísraelslýds: eiga mennirnir ad krefja mig
skynsemdar fyrir hid ókomna, eda setja mér
løg, hvørju eg skal fram fara um børn mín,
sem eru verk minna handa? 12. Eg hefi tilbú-
id jørdina, og skapad manninn, er á henni

V. 1. Smurda, Sýrus kallast Drottins Smurdi, af því hann var sá Konúngur, er Drottinn hafdi útvalid til ad frelsa Gydinga úr Babels herleidingu. Spretta belti Konúnganna, ad sleppa þeim úr vøldum. V. 2. Jafna hólana, ad gjøra veginn greidfæran.

býr. Hendur mínar útþøndu himininn, og eg ræd øllum himinsins her. 13. Eg hefi uppvakid hann (Sýrus Konúng) til hjálprædis, og eg vil greida alla hans vegu; hann skal upp byggja borg mína, og géfa heimfararleyfi mínu herleidda fólki án kaupgjalds eda lausnarfés, segir Drottinn allsherjar.

14. Svo segir Drottinn: aflafé Egyptalands og verslunargródi Blálands og hinna hávøxnu Sebaborgar innbúa skal gánga frá þeim til þín (Jerúsalemsborg!) og verda þín eign. Innbúendur þessara landa skulu þér eptir fylgja, koma til þín fjøtradir, falla til jardar fyrir þér, og bidjast fridar; því Gud er hjá þér, og fyrir utan hann er eingi Gud til. 15. Sannlega ertu hulinn Gud! Gud Ísraels er frelsari! 16. Allir þeir, sem tilbúa godalíkneskjur, hljóta ad blygdast og skammast sín og til smánar verda, hvørr med ødrum; 17. en Ísraels lýdur mun af Drottni frelsadur verda eilífri frelsun; þér (Ísraels menn!) munud ei til skammar, né til smánar verda, um aldur né æfi. 18. Því svo segir Drottinn, sá ed himininn hefir skapad, sá Gud, sem jørdina hefir gjørt og myndad, hann sem skóp hana, ekki til þess hún skyldi verda óbygd audn, heldur tilbjó hana til þess, ad hún væri byggileg: eg em Drottinn, en einginn annar. 19. Eg hefi ekki talad í leynum, ekki í dimmum fylsknum jardar. Eg hefi ekki talad hégóma, þegar eg hefi sagt vid Jakobs nidja: „leitid mín!“ Eg Drottinn tala þad sem satt er, og kunngjøri hvad rétt er. 20. Safnist saman, komid og nálægid ydur, allir þér skynlausu heidíngjar, sem hafid undan komist, þér sem dragist med trélíkneski ydar, og fallid fram fyrir þeim gudi, sem ekki kann ad frelsa. 21. Gjørid þad heyrum kunnugt, látid þá eiga fund saman og rádfæra sig hvørn vid annan: hvør hefir sagt þetta laungu fyrir fram, og kunngjørt þad frá øndverdu? Hefi eg Drottinn ekki gjørt þad? fyrir utan mig er eingi Gud til, eingi sannur Gud og hjálpari er til nema eg. 22. Snúid ydur til mín, og verdid hólpin, þér gjørvøll endimørk jardarinnar; því ad eg em Gud, og eingi annar. 23. Eg hefi svarid vid sjálfan mig, af mínum munni er sannleikur útgenginn, þad ord, sem eigi skal bregdast: fyrir mér skulu øll kné beigja sig, og allar túngur vid mig sverja: 24. í Drottni einum (mun um mig sagt verda) er hjálpin og styrkurinn; allir þeir, er í móti honum brjótast, skulu koma fram fyrir hann og verda til smánar; 25. en gjørvallt afspreingi Ísraels skal fyrir adstod Drottins hólpid verda, og hrósa sér af honum.

## 46. Kapítuli.

Vanmáttur skurdgodanna. Drottinn ber sitt fólk á sínum armlegg, og frelsar þad úr óvina hondum.

1. Bel er hokinn, Nebó er boginn; líkneski þeirra eru fengin dýrum og skepnum; þad sem þér (Babelsmenn) sjálfir bárud, er nú látid upp á þreyttan eyk, eins og ønnur byrdi. 2. Þeir eru bjúgir og bognir, bádir saman; þeir megna ekki ad frelsa byrdina (þ. e. sjálfa sig), og sjálfir hljóta þeir ad fara í útlegd. 3. Heyrid mér, þér kynsmenn Jakobs, og allir þér, sem eptir erud vordnir af Ísraels ættstofni, þér, sem erud mér á herdar lagdir allt í frá módurkvidi, og sem eg hefi borid, frá því ad þér fæddust! 4. Eg er ydur einn og hinn sami allt til elliára, eg vil bera ydur, þar til er þér verdid gráir fyrir hærum; eg hefi búid mér

V. 1. Bel og Nebó voru god Babelsmanna; Bel sama sem Baal, god Sýrlendínga og Feníka; Nebó kémur hvørgi fyrir, nema á þessum stad í Esajas, en þar af ætla menn dregid nafnid Nebúkadnesar, (þ. e. Nebó, goda ædstur), Nabonassar, Nabopalassar.

byrdina, eg skal bera hana: bera skal eg hana
og frelsa hana. 5. Vid hvørn viljid þér þá
jafna mér og samlíkja? Saman vid hvørn
viljid þér bera mig, þann er mér sé líkur? 6.
Þeir steypa gullinu úr sjódnum, og vega silfr-
id í skálum, leigja svo einhvørn gullsmid, og
hann býr til úr því god, en þeir knéfalla god-
inu og tilbidja þad. 7. Þessu godi lypta þeir
á axlir sér, bera þad, setja þad á stalla, og
þar stendur þad, og víkur ekki úr þeim stad,
sem þad er sett; menn ákalla þad, en þad veit-
ir eingin andsvør, og frelsar eingan úr vand-
rædum. 8. Hugsíd eptir þessu, og blygdist!
leggid þad á hjarta, þér fráføllnu syndarar!
9. Hugsíd eptir því, sem ádur hefir gjørst á
fyrri tídum; því eg em Gud, en einginn ann-
ar: eg em Gud, og einginn er minn líki. 10.
Eg kunngjøri hid ókomna frá øndverdu, og
segi fyrir fram, þad sem eigi er enn fram kom-
id; eg segi: mín rádstøfun stendur stødug, og
eg framkvæmi allt hvad mér vel líkar. 11.
Eg kalla fugl fljúganda úr austurátt, og úr
fjarlægu landi mann þann, er framkvæmir mína
rádstøfun; hvad eg tala, þad læt eg einnig
fram koma: hvad eg áset mér, þad gjøri eg
einnig. 12. Heyrid mér, þér hardsvírudu, sem
erud frásnúnir réttlætinu! 13. Eg læt mitt
réttlæti nálægja sig, þad er ekki lángt í burtu,
og mitt hjálprædi skal ekki dvelja; því eg vil
setja hjálprædid á Síonsfjall, og mína dýrd
medal Ísraelslýds.

## 47. Kapítuli.

Nidurlæging Babelsborgar.

1. Stíg nidur, og sit í duptinu, þú Babels-
mær! Sit þú á jørdinni hásætislaus, þú
Kaldea dóttir! Því þú munt eigi framar køll-
ud verda „hin lystilega og látprúda". 2. Tak
kvernina, og mala mjølid; bregd burt skýlu þinni,
lát upp klædafald þinn, gjør beran fótlegg þinn,
og vadt yfir fljótin! 3. Blygdun þín skal
verda opinber og þín svívirdíng augsýnileg; eg
vil hefna mín á þér, og eingi grid géfa. (4.
„Vor frelsari! Drottinn allsherjar er hans
nafn; hinn heilagi Gud Ísraels!) 5. Sit þú
kyrr, og gakk inn í myrkrid (myrkvastofuna),
þú Kaldea dóttir, því þú skalt ekki framar køll-
ud verda „Drottníng Konúngaríkjanna". 6.
Eg var reidur ordinn mínum lýd, og því fór
eg med þessa mína eiginlega eign, eins og væri
hún óheiløg, og seldi hana í hendur þér. En
þú sýndir þeim einga miskunsemi: þú létst ok
þitt leggjast mjøg þúngt á gamalmennin. 7. Þú
sagdir: „eg skal vera Drottníng um aldur og
æfi"; svo skeytíngarlaus varstu um hag þinn,
og hugsadir ekki um, hvørnig sídar mundi
fara. 8. Heyr nú þetta þá, þú hin sællífa,
er situr andvaralaus, þú sem sagdir í þínu
hjarta: „eg ein stend, en eingi borg ønnur; eg
skal aldrei verda ekkja, og aldrei reyna, hvad
þad er ad vera barnlaus". 9. En hvørt-
tveggja þetta skal þér ad hendi bera skyndilega
á einum degi, ad þú skalt bædi verda ekkja og
barnlaus; því þeir (óvinirnir) munu vada upp
á þig algjørlega, søkum þinna margvíslegu gald-
ra og stórmiklu tøfra. 10. Þú varst andvara-
laus midt í vondsku þinni, og sagdir med sjálf-
ri þér: „einginn sjer til mín"; vitska þín og
kunnátta hefir leidt þig afvega, svo þú sagdir í
þínu hjarta: „eg ein stend, en eingi borg ønn-
ur". 11. Þess vegna skal ógjæfan yfir þig
koma, svo ad þú skalt ekki vita, hvar hún upp
rennur; sú eymd mun yfir þig falla, ad þú
skalt ekki fá afstýrt med nokkurri fridarfórn;
skyndilegt tjón skal yfir þig koma, þegar minnst
varir. 12. Kom þú nú med tøfra þína, og

---

V. 11. Fugl fljúganda, þ. e. Sýrus Konúng. V. 1. Babels mær, þ. e. Babelsborg; Kaldea dóttir merkir þad sama, eda Kaldealand. V. 4. Er ord Spámannsins sjálfs, sem losar Gud fyrir hans hótanir gégn Babelsborg.

med hina margvíslegu galdra þína, sem þú hefir stundad med allri elju í frá barnæsku þinni; má vera, þú gétir eitthvad áunnid: má vera, þú faír þá mótstødu veitt. 13. Til einskis leitar þú í margra bragda. Komi þeir nú, sem þekkja himintúngla gánginn, skoda stjørnurnar, og spá eptir túnglkomum, og frelsi þeir þig nú frá því, sem yfir þig á ad koma. 14. Sjá, þeir eru sem hálmleggir, þeir er í eldi brenna; þeir géta ekki bjargad lífi sjálfra sín úr loganum; því þad verdur ekki glód til ad orna sér vid, eda eldur til ad sitja vid. 15. Þannig mun fyrir þeim fara, sem þú hefir mædst fyrir, þeim sem þú hefir haft einhvør møk vid: þeir þjóta í sína áttina hvørr, og einginn verdur til ad hjálpa þér.

## 48. Kapituli.

Spámadurinn lýsir Guds miskunsemi vid hina baldstýrugu Gydínga, og hvørsu þjódin mundi lánsom verda, ef hún hlýddi logmáli Drottins.

1. Heyrid þetta, þér Jakobs nidjar, sem nefndir erud eptir Ísrael, og upprunnir af Júda, þér sem sverjid vid nafn Drottins, og dýrkid Ísraels Gud, en ekki einlæglega eda réttilega; 2. því þeir nefna sig eptir hinni heiløgu borg, en þykjast þó eiga traust undir Ísraels Gudi, hvørs nafn er Drottinn allsherjar. 3. Hvad fyrr meir hefir vidborid, þad hefi eg fyrir laungu kunngjørt, þad er út gengid af mínum munni, og eg hefi gjørt þad heyrum kunnugt: eg færdi þad skjótlega til vegar, og þad kom fram. 4. Af því eg vissi, ad þú varst þverúdugur, og háls þinn seigur sem járnseymi, og enni þitt hardt sem kopar, 5. fyrir því þá kunngjørda eg þér þad laungu fyrir, og lét þig vita þad, ádur en þad kom fram, til þess þú skyldir ekki segja: „hjágud minn hefir hagad þessu svo, skurdgod mitt og hid steypta líkneski mitt hefir rádstafad því". 6. Þú hefir heyrt þad; sjá þú, þad hefir allt fram komid. Hljótid þér ekki ad játa þad? upp frá þessu læt eg þig heyra nýa og hulda hluti, sem þér vissud ekki. 7. Þessir hlutir eru nú í skøpun, en voru ádur ekki til, og ekki fyrir þenna dag. Þú hafdir ekki heyrt þá ádur, svo þú skyldir ekki géta sagt: „sjá þú, eg vissi þad". 8. Þú hafdir aldrei heyrt þad, aldrei vitad þad, og aldrei var þér slíkt ádur til eyrna komid, því eg vissi, ad þú varst trygdalaus og kalladur uppreistarsamur allt í frá módurkvidi. 9. Fyrir sakir nafns míns var eg þolinmódur, søkum minnar lofdýrdar hepta eg reidi mína gégn þér, svo eg afmádi þig ekki. 10. Sjá, eg hreinsadi þig, þó ekki væri til silfurs ad ætla; eg prófadi þig í ofni hørmúngarinnar. 11. Fyrir mína skuld, fyrir mína skuld gjøri eg þad (ad vægja þér); því fyrir hvílíku ámæli mundi nafn mitt annars verda! og mína dýrd géf eg eingum út í frá. 12. Heyr mig, Jakobs ætt, þú Ísraels lýdur, hvørn eg hefi kallad: Eg em einn og hinn sami, eg em hinn fyrsti, og eg em einnig hinn sídasti. 13. Mín hønd hefir grundvallad jørdina, og mín hin hægri hefir útþanid himininn: eg kalladi á þau, og þá komu þau undir eins. 14. Safnist allir saman, og heyrid! Hvørr af þessum (skurdgudum) hefir kunngjørt þetta? Drottinn elskar hann a), og hann b) skal framkvæma vilja Drottins á Babel, og audsýna hans mátt á Kaldeum. 15. Eg, sem tala þetta, eg hefi kallad hann og eg leidi hann híngad, svo ad før hans skal takast giptusamlega.

16. Komid til mín, og heyrid þetta! Eg taladi ekki í leyndum, þá eg fyrst hóf ad tala, og eg lifdi þad, ad ord mín rættust. Einnig nú hefir Drottinn, hinn alvaldi, og hans andi sendt mig. 17. Svo segir Drottinn, þinn frelsari, hinn heilagi Gud Ísraels: Eg em Drottinn, þinn Gud, sem kénni þér þad, sem

V. 14. *a. b.* Sýrus. V. 16. Þetta eru ord spámannsins til Gydinga.

þér er gagnlegt, og vísa þér þann veg, sem
þú skalt gánga. 18. Ef þú vildir gjæta
minna bodorda, þá mundi heill þín verda
sem vatnsstraumur, og hamíngja þín sem bylg-
jur sjáfarins. 19. Afkvæmi þitt mundi þá
verda sem fjørusandur, og afspríngur þinn sem
malargrjót; og nøfn nidja þinna mundu þá
ekki afmást eda ad eingu verda í augsýn
minni. 20. Gángid út af Babelsborg, flýid
burt frá Kaldeum med fagnadarópi! Birtid
þad, gjørid þad heyrum kunnugt, flytjid þann
bodskap allt til enda veraldar: „Drottinn
frelsar sinn þjón Jakob". 21. Þá þyrsti ekki,
þegar hann leiddi þá um þurrar audnir, því
hann lét vatn spretta upp úr klettinum handa
þeim: hann klauf klettinn, svo þar flaut vatn
af. 22. En hinir ógudlegu, segir Drottinn,
eiga eingrar vægdar von.

## 49. Kapítuli.

Um þjón Drottins og frelsun Gydíngalýds.

1. Heyrid mér, hin fjarlægu løndin! hygg-
id ad, þér þjódir, sem í fjarska búid! Drott-
inn kalladi mig allt í frá fædingu minni, hann
gjørdi kunnugt nafn mitt, frá því eg var í
módurkvidi. 2. Hann lét munn minn verda
sem hvast sverd; hann huldi mig med skugga sinn-
ar handar; hann gjørdi mig ad fágadri ør,
og fól mig í ørvamæli sínum. 3. Hann sagdi
til mín: þú ert minn þjón, og þú, Israels
lýdur, ert sú þjód, á hvørri eg vil audsýna
mig vegsamlegan. 4. Eg svaradi: eg hefi
þreytt mig til einskis, og eydt krapti mínum
til ónýtis og árángurslaust. Samt sem ádur,
minn dómur er hjá Drottni, og mín athøfn
hjá Gudi mínum. 5. Og nú segir Drottinn,
sem skóp mig allt í frá fædíngu minni til ad
vera sinn þjón, til þess eg snéri Jakobs nid-
jum til hans, og svo Israels lýdur gjæti
safnast ad honum: því eg er mikils metinn hjá
Drottni, og minn Gud er minn styrkur; 6.
Hann segir: þad er ekki nóg, ad þú sért minn
þjón til ad endurreisa ættkvíslir Jakobs, og
leida heim aptur hinn frelsada Israelslýd; eg
set þig til ad vera ljós heidíngja, og til ad
kunngjøra mitt hjálprædi til enda veraldar.

7. Svo segir Drottinn, frelsari og heilagur
Gud Israels lýds, vid þann, sem af mønnum
er fyrirlitinn, vid þann, sem þjódin hefir andstygd
á, vid þjón valdamannanna: Konúngar munu
sjá (þig), og upp standa, landshøfdíngjar
(munu sjá þig), og falla fram, vegna Drott-
ins, sem er trúfastur, og vegna hins heilaga
Israels Guds, sem útvaldi þig. 8. Svo
segir Drottinn: á tíma líknarinnar bænheyrda
eg þig, og á degi hjálprædisins frelsadi eg
þig; eg vardveiti þig, og set þig til ad stadfesta
sáttmála þjódarinnar a), til ad vidrétta landid,
og úthluta hinum eydiløgdu arfahlutum, 9.
til ad segja hinum fjøtrudu, „gángid út", og
þeim sem í myrkrunum eru, „látid sjá ydur".
Þeir skulu halda fé sínu á beit hjá þjódvegun-
um, hagbeitarland þeirra skal vera uppi á øll-
um hædum. 10. Þá skal ekki húngra, og
ekki þyrsta, hvørki hiti né sól skal ángra þá,
því þeirra miskunari vísar þeim leid, og leidir
þá ad vatnslindunum. 11. Øll mín fjøll
gjøri eg greidfær, og mínar brautir skulu
hækka. 12. Sjá! nokkurir koma úr fjarlæg-
um landsálfum, adrir frá nordri og vestri, og
enn adrir frá Sínalandi. 13. Lofsýngid, þér
himnar! gled þig, þú jørd! hefjid fagnadar-
saung, þér fjøll! því Drottinn veitir huggun
sínu fólki, og audsýnir miskun sínum þjáda lýd.

14. Síonsborg mælti: Drottinn hefir yfir-
gefid mig; hinn alvaldi hefir gleymt mér. 15.
Hvørt fær módirin gleymt brjóstbarni sínu, og
verid miskunarlaus vid lífsafkvæmi sitt? Og

V. 8. a. Sjá 42, 6.

þó hún gjæti gleymt því, þá gleymi eg þér samt ekki. 16. Eg hefi rist þig á lófa mína; þínir múrveggir standa jafnan fyrir augum mér. 17. Synir þínir flýta sér (til þín), en þínir niðurbrjótendur og herjendur víkja í burt frá þér. 18. Hef upp augu þín, og lít í kríng! þeir safnast allir saman, og koma til þín. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn, skaltu íklæðast þeim öllum, eins og skarti, og binda þá á þig, eins og brúðarlín. 19. Því þó borgir þínar séu niðurrifnar og umturnaðar og land þitt í eyði lagt, þá mun þó nú verða of þraungbýlt fyrir þig, og eyðileggjendur þínir munu stökkva lángt í burt frá þér. 20. Þú, sem nú ert barnlaus, munt á síðan heyra börn þín segja: „hér er of þraunglent fyrir mig, géf mér rúm, svo eg fái bústað". 21. Þá muntú segja í þínu hjarta: hvörr hefir alið mér þessi börn? Eg var þó barnlaus og einstæð, útlæg og burtrýmd. Hvörr hefir uppfædt þessi börn? Sjá þú! eg var einmana eptir skilin; hvar voru þá þessi börn? 22. Svo segir Drottinn alvaldur: Sjá þú! eg mun banda hendi minni til heiðíngjanna, og reisa upp merki mitt fyrir þjóðunum, og munu þeir þá færa híngað sonu þína í fángi sér, og bera dætur þínar á herðum sér. 23. Konúngar skulu verða fóstrar barna þinna, og höfðíngjafrúr fósturmæður þeirra. Þeir munu falla til jarðar fram á ásjónur sínar fyrir þér, og sleikja fótaðupt þitt. Þannig skaltú viðurkénna, að eg em Drottinn, og að þeir verða ekki til skammar, sem á mig vona.

24. Verður nokkuð herfángið tekið af hinum sterka? og gétur nokkuð bandínginn forðað sér undan kraptamanninum? 25. Vissulega, því svo segir Drottinn: Bandínginn skal tekinn verða af hinum sterka, og ránfengurinn sleppa úr höndum ofureflismannsins. Eg skal verja sök þína gégn sökunautum þínum, og frelsa sonu þína. 26. Eg skal láta þjánarmenn þína eta sitt eigið hold, og þeir skulu drukknir verða af sínu eigin blóði, eins og af vínberjalegi; svo að allir menn skulu viðurkénna, að eg Drottinn er þinn frelsari, og hinn máttugi Jakobs Guð þinn lausnari.

## 50. Kapítuli.

*Spámaðurinn ræður Gyðíngum, hvörjum Guð hegndi sökum illverka þeirra, að breyta eptir þjóni Drottins, vanda ráð sitt og treysta Guði.*

1. Svo segir Drottinn: hvar er sú skilnaðarskrá, með hvörri eg hafi rekið móðir yðar frá mér? Eða hvörr er sá lánardrottinn minn, hvörjum eg hafi seldt yður? Sjáið, sökum synda yðvarra eruð þér seldir, sökum misgjörða yðvarra er móðir yðar burtu rekin. 2. Hvörs vegna kom eingi til mín, þegar eg kom til yðar? Hví gégndi mér einginn, þá eg kallaði? Hvört er hönd mín svo stutt orðin, að hún kunni ekki að frelsa? eða vantar mig mátt til að bjarga? Sjáið! með minni hótan uppþurka eg sjáfarhafið, og gjöri fljótin að eyðimörku, svo fiskarnir í þeim úldna af vatnsleysi og deya af þorsta. 3. Eg færi himinin í svartan hjúp, og sveipa hann í sorgarbúníng.

4. Drottinn hinn alvaldi tamdi svo túngu mína, að eg hafði vit á að styrkja hinn ístöðulausa með máli mínu. Hann vakti, á hvörjum morgni vakti hann eyra mitt, svo eg tæki eptir, eins og lærisveinn. 5. Drottinn hinn alvaldi opnaði eyra mitt, og eg var ekki óhlýðugur og þverskallaðist ekki. 6. Eg snéra baki mínu að þeim, sem slógu mig, og kinn minni að þeim, sem reyttu mig: eg byrgða ekki mína ásjónu fyrir smán og hrákum. 7.

V. 24. Þetta eru orð Gyðinga, sem örvæntu um lausn sína úr herleiðingunni. V. 1. Móðirin er Israels þjóð, hennar börn Gyðingarnir. Skuldunautar urðu stundum að láta börn sín í skuldir til lánardrottna sinna.

En Drottinn hinn alvaldi hjálpar mér, þess
vegna verd eg ekki til mínkunar; þess vegna
býd eg fram ásjónu mína, eins og hardstein,
ad eg veit, ad eg verd ekki til skammar. 8.
Sá er nærri, sem tekur ad sér mál mitt.
Hvørr vill géfa mér sakir? Látum oss eiga
fund saman! Hvør sem hefir søk ad kjæra á
hendur mér, hann gángi fram til mín! 9.
Sjá! Drottinn hinn alvaldi veitir mér lid;
hvørr er sá, er géti gjørt mig sekan? Sjá!
þeir a) fyrnast allir, sem fat; mølur skal eyda
þeim. 10. Sérhvørr af ydur, sem óttast
Drottinn, hann hlýdi raustu þjóns hans. Sá
sem í myrkrunum gengur, og aungva skímu
sjer, hann treysti á nafn Drottins og reidi sig
á sinn Gud. 11. Sjáid! Allir þér sem kveikid
eld og hafid logbranda kríngum ydur, gángid
þér út í þann eld, sem þér hafid kveyktan, og
þá logbranda, sem þér hafid tendrada! Frá
minni hendi kémur þetta yfir ydur; í harm-
kvælum skulud þér liggja.

## 51. Kapítuli.

Dæmi Abrahams; almáttur Drottins; frelsun Guds fólks undan ofurvaldi Babelsmanna.

1. Heyrid mér, þér sem sækist eptir réttlæt-
inu, þér sem leitid Drottins! Lítid á þad
hellubjargid, sem þér erud af høggnir, á þá
bjargskoruna, sem þér erud úr grafnir. 2. Lít-
id á Abraham, ydvarn fødur, og á Søru, sem
ól ydur! Því barnlausan kalladi eg hann, eg
blessadi hann og jók kyn hans. 3. Eins mun
Drottinn líkna Síonsborg, og miskuna sig yfir
allar hennar nidurbrotnu borgarrústir; hann
mun gjøra hennar audn sem Eden, og hennar
óbygd sem aldingard Drottins; føgnudur og
gledi, lofsaungur og fagnadar raust skal finnast
í henni. 4. Géf gaum ad mér, mitt fólk!
Hlusta til, minn lýdur! því frá mér mun løg-
mál útgánga, og eg mun setja mín bodord til
ljóss fyrir þjódirnar. 5. Mitt réttlæti er nálægt,
mitt hjálpræði er á leidinni; mínir armleggir
munu úr málum skéra milli þjódanna: fjarlæg-
ar landsálfur vænta mín, og bída eptir mín-
um armlegg. 6. Hefjid ydar augu til him-
ins, og lítid á jørdina hér nidri! Himininn,
hann hverfur sem reykur: jørdin fyrnist sem
klædi, og þeir sem á henni búa, deya sem mý;
en mitt hjálpræði varir eilíflega, og mitt rétt-
læti mun aldrei linna. 7. Heyrid mér, þér
sem þekkid réttlætid, þér lýdir, sem leggid mitt
løgmál ydur á hjarta! Óttist eigi spott manna,
og hrædist eigi smánaryrdi þeirra; 8. því
mølurinn mun eta þá, sem klædi, og madkur-
inn, einsog ull; en mitt réttlæti varir ad ei-
lífu, og mitt hjálpræði frá einni kynslód til
annarar.

9. Hef þig upp, hef þig upp, íklæd þig
styrkleika, þú armleggur Drottins! Hef þig upp
einsog fordum daga, einsog í fyrndinni! Ertú
þad ekki, sem eydilagdir Rahabsland a), og ban-
adir vatnsskrímslinu b)? 10. Ertú þad ekki, sem
uppþurkadir hafid, vøtn hins stóra sjáfargeims,
og gjørdir sjáfardjúpid ad færum vegi fyrir
hina frelsudu?

11. Hinir endurleystu Drottins skulu aptur
hverfa, og koma med fagnadi til Síonsborg-
ar; eilíf gledi skal leika yfir høfdi þeim, føgn-
udur og kjæti skal falla í þeirra skaut, en hrygd
og andvarpan á burtu víkja. 12. Eg, eg er
sá, sem hugga ydur. Hvør ertú þá, ad þú
skulir hrædd vera vid mennina, sem eiga ad
deya, og mannanna børn, sem verda einsog
grasid; 13. ad þú skulir gleyma Drottni, sem
skóp þig, honum sem útþandi himininn og grund-
valladi jørdina; ad þú skulir ávallt hvørn dag

V. 9. *a.* Þeir, ákjærumenn mínir. V. 9. *a.* Rahabsland, Egyptaland, *b.* vatnsskrímslid, krókódílinn í ánni Níl þ. e. Faraó, sjá Esek. 29.

vera skjálfandi fyrir heipt kúgarans, þegar hann býr sig til hrodaverkanna? En hvad verdur úr heipt ofríkismannsins? 14. Brádum skulu hinir naudbeygdu lausir verda; þeir skulu ekki deya í díblissunni, og eingan skort hafa á fædslu. 15. Því eg em Drottinn, þinn Gud, sem æsi sjáfarhafid, svo ad þess bylgjur þjóta; Drottinn allsherjar er hans nafn. 16. Eg legg mín ord í munn þér, og skýli þér undir skugganum minnar handar, til þess ad útþenja (nýan) himin og grundvalla (nýa) jørd, og segja til Síonsborgar: „þú ert minn lýdur".

17. Vakna þú, vakna þú! rís upp, Jerúsalemsborg, þú sem af Drottins hendi medtókst hans reidibikar, og drakkst hann, þú sem bergdir á hinum vída ofdrykkjubikarnum, og drakkst hann í botn! 18. Af øllum þeim sonum, sem þú hafdir alid, var ekki nokkurr einn, sem leiddi þig; af øllum þeim sonum, sem þú hafdir uppfædt, var einginn, sem tæki í hønd þína: 19. þetta hvørttveggja hendti þig! Hvørr aumkadi þig? — Enn eydileggíngin og umturnunin og húngrid og sverdid! — Hvørsu fæ eg huggad þig? 20. Synir þínir lidu í ómegin, og lágu á øllum strætamótum, eins og skógaruxi í neti, fullir af reidi Drottins og ógnarordum þíns Guds. 21. Þar fyrir heyr þú nú, þú hin vesæla borg, þú sem ert drukkin, enn þótt ekki af víni: 22. Svo segir Drottinn, þinn alvaldur, og þinn Gud, sem réttir hlut síns fólks: Sjá þú, eg tek úr hendi þinni ofdrykkjubikarinn, þann hinn vída reidibikar minn; þú skalt ekki framar á honum bergja. 23. Eg fæ hann í hendur þeim, sem ángra þig, þeim er søgdu til þín: „varpa þér nidur, svo vér gétum gengid á þér!" Og þá gjørdir þú hrygg þinn ad sléttri grund og ad gøtu til ad gánga á.

## 52. Kapítuli.

*Frelsun Gydínga bodast; gledi yfir þeim fagnadarbodskap. Spádómur um Messías.*

1. Vakna þú, vakna þú, íklæd þig styrk þínum, Síonsborg! Iklæd þig vegsemd þinni, Jerúsalem, þú hin heilaga borg! því einginn óumskorinn eda óhreinn skal framar inn í þig gánga. 2. Hrist af þér moldarduptid, setst upp, Jerúsalemsborg! Losa þú af þér hálsfjøtra þína, þú hertekna Síonsdóttir! 3. Því svo segir Drottinn: Fyrir ekkért erud þér burtseldir, þér skulud og án silfurs endurleystir verda. 4. Því svo segir Drottinn hinn alvaldi: mitt fólk fór fyrst ofan til Egyptalands, til ad búa þar sem útlendíngar; sídan kúgadi Assýríu Konúngur þad án nokkurra saka. 5. Hvørsu má eg nú láta svo fram fara, segir Drottinn, ad ad mitt fólk skuli vera burtflutt án saka. Þess yfirdrottnarar dramba, segir Drottinn, og mitt nafn verdur med degi hvørjum jafnlega spottad. 6. Þess vegna skal mitt fólk fá ad þekkja mitt nafn; já, þad skal þá kannast vid, ad þad var eg, sem sagdi: „Sjá, hér em eg".

7. Hvørsu fagrir eru fætur þess sendiboda, sem fridinn kunngjørir, fagnadartídindin flytur, frelsunina bodar, og segir til Síonsborgar: „þinn Gud ríkir sem Konúngur"! 8. Rødd þinna vøkumanna heyrist, þeir hefja upp raustina og æpa fagnadaróp, því þeir sjá augsýnilega, ad Drottinn kémur aptur til Síonsborgar. 9. Æpid fagnadaróp allar í einu, þér eydirústir Jerúsalemsborgar, því Drottinn hefir huggad sitt fólk, hann hefir endurleyst Jerúsalems-

V. 17. Þegar sidaspillingin verdur svo megn i heiminum, ad heil ríki og lønd fyri þá skuld verda í eydi løgd, og þjódirnar ad eingu gjørdar, þá hafa Spámennirnir þad ordatiltæki ad Gud géfi þjódunum sinn reidibikar ad drekka, og gjøri þær drukknar og rádlausar, og því kalla þeir þenna reidibikar Guds, ofdrykkju — (vitleysu eda rádleysu —) bikar, Jer. 25, 15. 16. V. 6. Mitt nafn, mitt almætti, minn mátt til ad frelsa þjódina úr ánaud.

borg. 10. Drottinn hefir opinberad sinn heilaga armlegg í augsýn allra þjóda, og øll endimørk jardarinnar skulu sjá hjálprædid vors Guds. 11. Farid burt, farid burt, gángid út þadan, snertid ekkért óhreint! Gángid alveg út úr borginni! Hreinsid ydur, þér sem berid kérin Drottins! 12. Þó skulud þér ekki í flýti út fara, né med flótta ferdast, því Drottinn fer fyrir ydur í fararbroddi, og Gud Israels gengur aptastur í flokki ydrum.

13. Sjá, minn þjón mun happasæll verda, hann mun verda mikill og veglegur, og mjøg hátt upphafinn. 14. Eins og margir menn undrast yfir honum (því svo er hans ásýnd afskræmd framar en nokkurs manns, og hans mynd, framar en nokkurs af mannanna sonum): 15. Eins mun hann vekja margra þjóda lotníngu fyrir sér; Konúngar munu aptur halda munni sínum fyrir honum, því þeir munu sjá þad, sem þeim hafdi aldrei verid frá sagt, og verda varir vid þad, sem þeir høfdu aldrei heyrt.

## 53. Kapítuli.

Spádómi um Messías framhaldid.

1. Hvørr trúir því, sem vér kunngjørum? Og armleggur Drottins, hvørjum er hann opinber ordinn? 2. Hann rann upp eins og runnur fyrir hans augliti, og sem rótarkvistur úr þurri jørdu. Á honum var eingi fegurd, ekkért glæsilegt, ad oss gæsi á ad líta, ekkért álitlegt, sem oss findist til. 3. Hann var fyrirlitinn og af mønnum ysirgéfinn, undirorpinn harmkvælum, audkéndur af sárum, líkur manni þeim, er menn byrgja fyrir andlit sín, svo fyrirlitinn, ad vér møttum hann einskis. 4. Þó bar hann vor sár, og lagdi á sig vor harmkvæli; en vér álitum hann refsadan, sleginn og lítillættan af Gudi. 5. Og þó var hann vegna vorra misgjørda særdur, og fyrir vorra synda sakir lemstradur; hegníngin lá á honum, svo vér hefdum frid, og fyrir hans benjar urdum vér heilbrygdir. 6. Vér fórum allir villir vega, sem saudir: hvørr vor stefndi sína leid; og þó lagdi Drottinn á hann syndir vor allra. 7. Sektin var krafin, og hann leid: hann lauk ei upp sínum munni, sem lamb þad, er til slátrunar er leidt; eins og saudurinn þegir fyrir þeim, er hann klyppir, eins lauk hann ei upp sínum munni. 8. Frá ángist og dómi er hann burt numinn; en hvørr af samtídamønnum hans mundi hugsa, ad hann væri af landi lifendra burt hrifinn fyrir misgjørda sakir míns fólks, søkum þeirrar hegníngar er fyrir því lá? 9. Svo var til ætlad, ad grøf hans skyldi vera medal íllrædismanna, en legstadur hans var látinn vera hjá ríkum manni, af því hann hafdi eingum órétt gjørt, og eingin svik voru í hans munni. 10. Drottinn lét sér vel líka ad kremja hann med harmkvælum. En þegar hann hefir látid líf sitt til sektafórnar, þá skal honum afspreingis audid verda, og lángra lífdaga; og áform Drottins mun fyrir hans hønd framgengt verda. 11. Fyrir þær mannraunir, sem hann leid, skal hann njóta gnóglegra launa. Þá menn læra ad þekkja hann, mun hann, hinn réttláti þjón minn, marga réttláta gjøra, því hann bar þeirra syndir. 12. Þess vegna vil eg géfa honum marga í sitt hlutskipti, og hann skal ødlast hina voldugu ad herfángi, fyrir þad ad hann útgaf sitt líf í daudann og var med illrædismønnum talinn, og af því hann bar margra syndir og bad fyrir afbrotamønnunum.

## 54. Kapítuli.

Hvørsu Gydínga þjód skyldi eflast og útbreidast, og um miskunsemi og gjædsku Guds vid sitt fólk.

1. Vert glød, þú óbyrja, sem ekki hefir fædt! Hef upp fagnadarsaung, þú sem ekki hefir barn alid! því børn hinnar ysirgéfnu eru fleiri, en hinnar, sem manni er gipt, segir

Drottinn. 2. Rýmka þú út tjaldbúd þína, fær
út búdartjøld þín, og drag ekki af, teyg
tjaldstøgin lángt út, og rek fast hælana! 3.
Því þú skalt færa þig út til hægri og vinstri
handar, og afspreingi þitt skal eignast lønd
heidíngjanna, og byggja hinar eyddu borgir.
4. Óttast eigi, því þú skalt eigi til skammar
verda! vert eigi blýg, því þú skalt eigi ad
spotti verda; þú skalt gleyma vanvirdu þíns
meydóms a), og ekki minnast framar á sví=
virdíngu þíns ekkjudóms b); 5. því hann sem
skóp þig, hann er eiginmadur þinn: Drottinn
allsherjar er hans nafn; hinn heilagi Ísraels
Gud er þinn frelsari; hann heitir Gud gjør=
vallrar veraldar. 6. Drottinn álítur þig sem
yfirgéfna og harmþrúngna kvinnu, sem konu
þá, er giptst hefir úng, en verid sídan ein lát=
in, segir þinn Gud. 7. Um skammrar stund=
ar sakir yfirgaf eg þig, en med stórri miskun=
semi vil eg þig aptur ad mér taka. 8. Eg
byrgda mitt auglit fyrir þér um stund, í ofur=
reidi minni, en med eilífri líkn vil eg miskuna
þér, segir Drottinn, þinn endurlausnari. 9.
Eg vil nú gjøra, eins og eg gjørdi í Nóa
flódi: eins og eg sór þá, ad Nóa flód skyldi
ekki framar yfir jørdina gánga, eins sver eg
nú, ad eg skal ekki reidast vid þig og ekki ógna
þér, 10. Fjøllin færast úr stad, og hálsarnir
rida, en mín miskunsemi vid þig skal ekki úr
stad færast, og minn fridarsáttmáli ekki raskast,
segir Drottinn, þinn miskunari. 11. Þú ve=
sæla, hrjáda og huggunarlausa borg! Sjá
þú! eg vil líma gólfsteina þína med augnati,
og leggja grundvøll þinn af saffírsteinum; 12.
eg vil gjøra múrtinda þína af rúbínum, borg=
arhlid þín af glósteinum, og øll ummørk þín
af dýrum gimsteinum. 13. Øll børn þín skulu
mentud vera af Drottni, og njóta góds fridar.
14. Fyrir réttlætid skaltu stødug standa, fird
øllu ofríki, sem þú eigi skalt þurfa ad óttast,
og allri skélfíngu sem eigi skal nálgast þig.
15. Sjá þú! vilji nokkur áreita þig, þá skal
sá ad eingu verda gjørdur af mér; sá sem
ofsækir þig, skal falla fyrir þér. 16. Sjá!
eg skapa smidinn, sem blæs ad kolaeldinum,
og útleidir þadan vopnin med hagleik sínum;
eg skapa líka styrjaldarmanninn til ad eydilegg=
ja (beita vopnunum til eydileggíngar). 17.
Eingi vopn, sem smídud verda móti þér, skulu
verda sigurvænleg, og allar túngur, sem upp
rísa gégn þér, skaltú í dóminum sigra. Þetta
er hlutfall þjóna Drottins, og þau laun, sem
þeir fá hjá mér, segir Drottinn.

## 55. Kapítuli.

Upphvatníng til yfirbótar; Guds rádstøfun, ædri øll=
um mannlegum skilníngi, og hans fyrirheit óbrigdul.

1. Heyrid, allir þér sem þyrstir erud, gáng=
id til vatnsins! þér, sem ekkért silfur hafid,
komid og kaupid fædslu! komid og kaupid, án
silfurs og ókeypis, bædi vín og mjólk! 2. Hví
reidid þér silfur fyrir þad, sem ekki er matur?
og látid atvinnu ydra fyrir þad, sem ekki er
til sadníngs? Heyrid mér, neytid þess sem
gott er, og látid ydra sálu una vid þad, sem
feitt er. 3. Hneigid híngad eyru ydar, og
komid til mín; heyrid! þá skal ydar sála lifa.
Eg vil gjøra vid ydur eilífan sáttmála, Da=
víds stadfasta líknarsáttmála. 4. Sjá, eg setti
hann sem vitnismann fyrir þjódirnar, og gjørdi
hann ad høfdíngja og løggjafa þjódanna. 5. Sjá,
þú skalt kalla til þín þær þjódir, sem þú þekkir
ekki, og þær þjódir, sem ekki þekkja þig, skulu
hrada sér til þín, vegna Drottins, þíns Guds,
og hins heilaga Ísraels Guds, því hann gjør=
ir þig vegsamlega. 6. Leitid Drottins, medan
hann er ad finna! Kallid á hann, medan hann
er nálægur! 7. Hinn ógudlegi láti af sinni

V. 4. *a.* Ánaud Gydinga í Egyptalandi. *b.* Babels herleidingu.

breytni, og illvirkinn af sinni hugsan, og snúi sér til Drottins, þá mun hann miskuna honum, og til vors Guds, því hann er fús á ad fyrirgéfa. 8. Mínar hugsanir eru ekki ydar hugsanir, og ydar vegir ekki mínir vegir, segir Drottinn; 9. heldur, svo miklu sem himininn er hærri en jördin, svo miklu hærri eru mínir vegir ydrum vegum, og mínar hugsanir ydrum hugsunum. 10. Því eins og regn og snjór fellur af himni ofan, og hverfur ei þángad aptur, heldur vökvar jördina, gjörir hana frjófsama og gróandi; og géfur fræ til sædis og braud til fædslu: 11. eins er mitt ord, þad er út gengur af munni mínum; þad hverfur ekki tómt aptur til mín, heldur framkvæmir þad, sem mér vel líkar, og kémur því greidilega til vegar, sem eg hefi til ætlast. 12. Já, med gledi skulud þér út fara, og í fridi útleiddir verda. Fjöll og hálsar skulu upp hefja fagnadarsaung yfir ydur, og öll skógartrén klappa lof í lófa. 13. Í stad þyrna skal fura upp vaxa, í stad þistla myrtusvidur; og þetta skal verda Drottni til lofs og eilífrar minníngar, sem aldrei mun afmád verda.

## 56. Kapítuli.

Rádvendni og gudrækni; jafnrétti allra þjóda; hyrduleysi og lestir þjódar forstjóranna.

1. Svo segir Drottinn: gjætid lögmálsins, og gjörid hvad rétt er, því mitt hjálpræði er í vændum, og mitt réttlæti mun brádum opinberast. 2. Sæll er sá madur, sem þetta gjörir, og hvört þad manns barn, sem heldur þad fastlega: sem heldur hvíldardaginn, án þess ad vanhelga hann, og vardveitir hönd sína frá því ad adhafast nokkud þad, sem íllt er.

3. Hafi nokkurr útlendur madur gengid Drottni á hönd, þá taki hann eigi svo til orda: „Drottinn skilur mig frá sínu fólki"; og sé þad geldíngur, þá segi hann ekki: „eg em þurt tré". 4. Því svo segir Drottinn um geldínga: haldi þeir mína hvíldardaga, og láti sér sæma þad sem mér vel líkar, og haldi stöduglega minn sáttmála, 5. þá mun eg géfa þeim, í mínu húsi og innan borgarveggja minna, þad minnismerki og þad nafn, sem betra er, en sona og dætra: eilíft nafn mun eg géfa þeim, þad er aldrei mun afmád verda. 6. Þá útlenda menn er gengid hafa Drottni á hönd til ad dýrka hann, og af ást á nafni Drottins verda þjónar hans; sérhvörn þann, sem heldur hvíldardaginn, án þess ad vanhelga hann, og heldur stöduglega minn sáttmála: 7. þessa mun eg leida til míns heilaga fjalls, og gledja þá í mínu bænahúsi; þeirra brennifórnir og sláturs-fórnir skulu vera (mér) þakknæmilegar á mínu altari: því mitt hús skal kallast bænahús handa öllum þjódum. 8. Drottinn hinn alvaldi, sem saman safnar hinum tvístrada Ísraelslýd, hann segir: „eg vil enn bæta fleirum vid í flokk þeirra, sem samansafnadir eru".

9. Öll þér dýr, sem erud úti á vídavángi og í skógunum, komid og etid! 10. Vökumenn þeirra (Ísraelsmanna) eru blindir; engiinn þeirra veit neitt; þeir eru allir eins og hljódlausir hundar, sem ekki géta gelt; þeir sjá sjónir, liggja, og þykir vænt um ad sofa. 11. Hundar þessir eru grádugir, og verda aldrei saddir; þeir eru ad sönnu hirdarar, en med öllu adgjætslulausir: hvörr gengur sína götu, hvörr lítur á sinn hag, einn sem annar. 12. „Komid (segja þeir), eg legg til vín, látum oss drekka oss drukkna í áfengum drykk; og á morgun skulum vér því sama fram fara sem í dag, og gjöra betur til".

## 57. Kapítuli.

Daudi hins réttláta; lýsíng skurdgodadýrkunarinnar; Guds þolinmædi, mistunsemi og réttlæti.

1. Hinn réttláti lídur undir lok, án þess

nokkurr leggi það á hjarta; gódir menn verda
í burt numdir, án þess nokkurr hyggi ad því.
En hinn réttláti verdur burt numinn frá hinu
vonda. 2. Þeir sem gánga frammi fyrir hon-
um (þeir sem þjóna Drottni), þeir inngánga
í frid, og hvílast (eins og þeir svæfi) í hvílu-
rúmum sínum.

3. Komid híngad, þér a) seidkonu synir, þú
hórkarla og skjækju afsprengi! 4. Ad hvørjum skop-
ist þér? Ad hvørjum hlæid og spottist þér b)?
Erud þér ekki syndarinnar børn, afsprengi lýg-
innar? 5. þér sem brennid af girndarbruna til
hjágudanna undir hvørju grænu tré, og slátrid
børnunum í dølunum fyrir nedan bjargskorurn-
ar! 6. þú c) átt heima í dalarjódrunum, þar
eru átthagar þínir, þar úthellir þú drykkjarfórn
þinni, þar framber þú matarfórn þína. Gét
eg látid mér lynda slíkt? 7. þú setur legurúm
þitt uppi á háfjøllum, gengur sídan upp þángad
til ad fórnfæra. 8. Á hurdarbaki og á bak vid
dyrustafi setur þú menjagripi þína d); án þess
ad skipta þér um mig, afklædir þú þig, stígur
upp í, lætur rúmt vera í sæng þinni, slær kaupi
vid suma af þeim e), og girnist samlag vid þá,
nær sem þú sjer þér færi. 9. Þú kémur fyrir
Mólok med vidsmjør og marghátttud smyrsl, og
sendir sendiboda þína í fjarlæg lønd, og allt
nidur í undirheima. 10. Þó þú sért þreytt af
þessu lánga ferdalagi, lætur þú þó aldrei bilbug
á þér finna; medan þú finnur kvika fjør í hendi
þér, kénnir þú þér einskis meins.

11. Hvørn óttadist og hræddist þú, ad þú
skyldir bregda svo trúnadi þínum, ad þú skyldir
ekkért muna til mín, og einga hugsun þar á
hafa? Eg þagda, og það í lánga tíma; þess
vegna óttadist þú mig ekki. 12. En eg skal
opinbera dygdasemi þína og framferdi þitt, og
munu þau ekki koma þér ad haldi. 13. Láttu
flokk þann, er þú hefir samandregid, bjarga þér,
þá þú kallar um hjálp! Vindurinn mun svipta
þeim øllum í burtu, og gusturinn taka þá. En
sá sem á mig vonar, hann mun erfa landid og
eignast mitt heilaga fjall; 14. og þá mun sagt
verda: „jafnid, jafnid, rydjid veginn! takid
af allar torfærur á vegi míns fólks". 15.
Því svo segir hinn háleiti og hátt upphafni,
hann sem ríkir eilíflega, heilagt er hans nafn:
Eg bý á háfum og helgum stad, og þó er eg
hjá þeim, sem hafa sundurknosadan og lítillát-
an anda, til þess ad lífga anda hinna lítil-
látu, til ad lífga hjørtu enna sundurknosudu.
16. Eg ávíta ei ætíd, og reidist ei æfinlega;
þvi þá mundi vanmegnast andi mannanna og
þær sálir, sem eg hefi skapad. 17. Søkum
þeirra megnu ágirndar reidist eg þeim, svo eg
byrgi mitt andlit fyrir þeim og slæ þá; eg
reidist, þegar þeir rísa á móti mér, og fara
fram því sem þá sjálfa lystir til. 18. Eg sje
þeirra athafnir, og þó fyrirgéf eg þeim, leidi
þá, og veiti þeim aptur hugsvølun, hvørjum
þeim sem sorgmæddir eru. 19. Eg skapa á-
vøxt varanna, „frid, frid", fjær og nær;
þannig vidrétti eg hag þeirra, segir Drottinn.
20. En hinir ógudlegu eru sem ólgufullt haf,
sem aldrei gétur kyrt verid, og hvørs bylgjur
út kasta aur og leir. 21. Hinir ógudlegu
hafa eingan frid, segir minn Gud.

## 58. Kapítuli.

Sönn Guds þjónusta er ekki innifalin í føstu, heldur
í sønnum Guds ótta og mannkjærleik.

1. Kalla þú af megni, og drag ekki af!
Hef upp raust þína, sem básúna, og kunngjør
mínu fólki þess misgjørdir, og afspreingi Ja-

V. 3. *a.* Þ. e. þér Gydingar, sem gengid hafid á trygdir vid Drottinn og þjónid hjágudum. *b.* Hlæid og spottist
þér, á Hebr., „vidkid munninn og lengid túnguna". V. 6. *c.* Þú, Gydinga þjód! V. 8. *d.* Menjagripi, þ. e.
skurdgod, hjágudi; *e.* Þeim, godunum. Hjágudadýrkuninni er lýst med sømu litum og skjækjulifnadi.

kobs þess syndir! 2. Þeir leita mín dag frá degi, og vilja gjarna þekkja mína vegu. Þeir krefja mig réttra laga, eins og væru þeir sú þjód, sem gjørir hvad rétt er og víkur eigi frá løgmáli Guds, og vilja því gjarna þreyta løg vid Gud. 3. „Hvar fyrir føstum vér (segja þeir), og þú gjætir þess ekki? hví þjáum vér oss, og þú skeytir því ekki"? — Sjáid! þegar þér fastid, þá fáid þér ydvarn vilja, og kúgid alla skuldamenn ydar. 4. Sjáid! þér fastid, til þess ad vekja deilur og þrætur, og slást upp á adra med hnefahøggum fyrir einga søk. Fastid eigi, eins og þér nú gjørid, ad háreysti ydar heyrist upp í hædirnar. 5. Mun þvílík fasta vera sú fasta, sem mér líkar, ad madur meinlæti sjálfum sér, heingi nidur høfudid, sem sef, og liggi á hárklædi og í øsku? Viltu kalla slíkt føstu og þakknæmilegan dag fyrir Drottni? 6. Nei, þetta er sú fasta, sem mér líkar: ad þú leysir fjøtra rángsleitninnar, látir rakna bønd okssins, gefir frjálsa hina kúgudu, og sundurbrjótir sérhvørt ok, 7. deilir braud þitt med hinum húngrada, hýsir bágstadda, ofsókta (hælislausa) menn. Ef þú sjer mann klædlausan, og klædir þú hann, og firrist hann eigi, af því hann sé madur eins og þú: 8. þá skal hamíngja þín upprenna, sem morgunrodi, og heill þín brádlega fram spretta; þá mun þitt réttlæti fara fyrir þér, og dýrdin Drottins fylgja á eptir þér. 9. Þá muntu ákalla Drottinn, og hann mun bænheyra; þú munt kalla, og hann mun svara: „Sjá! hér em eg". Ef þú heldur þér frá allskonar undirokun, spotti og syndsamlegum ordum: 10. ef þú réttir hinum húngrada bitann frá munni þínum, og sedur svo þann, sem bágt á, þá mun ljós upp renna fyrir þér í myrkrinu, og dimma verda þér sem hádegi dags. 11. Drottinn mun ávallt leida þig, og sedja þig og styrkja, þó þú sért staddur á vatnslausum stødum; þú munt verda sem vøkvadur aldingardur, og sem uppsprettulind, þar er aldrei bregdst vatn. 12. Afkomendur þínir munu upp byggja þær enar fornu borgarústirnar, og þú munt aptur vidreisa þad, sem vid velli hefir legid um marga mannsaldra; og um þig mun sagt verda, ad þú hafir hladid upp í veggjaskørdin, og endurbætt þjódveguna, svo landid yrdi byggilegt. 13. Ef þú varast ad vanhelga hvíldardaginn, og gjørir eigi hvad þig sjálfan lystir til á þeim degi, sem mér er helgadur, heldur álítur hvíldardaginn sem feginsdag, helgadan Drottni og heidurs verdan: ef þú virdir hann svo, ad þú fer ekki fram egin hugþótta þínum, og gjørir ekki allt hvad þig lystir, né talar hégómaord: 14. Þá muntu gledjast í Drottni, og þá skal eg láta þig fram bruna á hædum landsins, og njóta arfleifdar Jakobs, fødur þíns. Því Drottins atkvædi hefir svo til skipad.

## 59. Kapítuli.

Sidaspillíng Gydíngalýds; hegníng Guds; frelsun þjódarinnar.

1. Sjá þú! ekki er hønd Drottins svo stutt, ad hann megi eigi hjálpa, og ekki eyra hans svo þykkt, ad hann géti ekki heyrt. 2. Þad eru misgjørdir ydar, sem skilnad hafa gjørt milli ydar og ydvars Guds, og ydar syndir hafa byrgt auglit hans fyrir ydur, svo hann heyrir ekki. 3. Því lófar ydrir eru flekkadir med blódi, og fíngur ydrir med misgjørdum. Ydar varir tala lýgi, og ydar túnga fer med rángsleitni. 4. Einginn kallar á réttlætid, og einginn umvandar med einlægni. Menn treysta á þad sem ekkért er, og tala hégóma. Þeir géta ofríki, og ala misgjørdir. 5. Þeir útklekja hornorms eggjum, og vefa kóngulóar vefi. Hvørr sem etur af eggjum þeirra, hlýtur ad deya; verdi þau í sundur trodin,

kémur þar úr nadra. 6. Vefnadur þeirra
dugir ekki til klæda, og þad, sem þeir vinna,
verdur ei haft til skjóls: þad, sem þeir vinna,
eru vondskuverk, og ofríkisverk liggja í lófum
þeirra. 7. Fætur þeirra eru skjótir til ílls,
og fljótir til ad úthella saklausu blódi; ráda-
gjørdir þeirra eru skadrædis rádagjørdir: tjón
og eydilegging er á vegum þeirra. 8. Þeir
þekkja ekki veg fridarins, og eingin réttindi eru
á þeirra stigum; þeir umhverfa vegum sínum,
og hvørr sem þá vegu gengur, sá hefir aldrei
frid. 9. Þess vegna eru réttindin lángt frá
oss, og réttlætid kémur ekki nálægt oss. Vér
væntum eptir ljósi, en allt er myrkt, eptir
birtu, en gaungum þó í dimmu. 10. Vér
þreifum fyrir oss, eins og blindir menn
med vegg, og fálmum med høndunum, eins
og þeir sem eingin augu hafa: vér rekum oss á
um midjan dag, eins og í røkkri, vér gaung-
um í nída myrkri, eins og daudir menn.
11. Vér hrjótum, sem birnir, og kurrum,
sem dúfur, allir saman. Vér væntum réttinda,
en eingin fæst; vér væntum frelsis, en þad er
lángt í burt frá oss. 12. Því vorar mørgu
misgjørdir standa frammi fyrir þér, og vorar
syndir vitna í gégn oss; vorar misgjørdir eru
medur oss, og vér vitum vorar yfirtrodslur:
13. ad vér høfum gjørt uppreisn gégn Drottni,
afneitad honum, og vikid lángt í burt frá
vorum Gudi: ad vér høfum eggjad til ofríkis
og uppreisnar (gégn Gudi): ad vér høfum
upphugsad ósannindi í hjartanu, og talad þau.
14. Þess vegna hafa réttindin hørfad á hæl,
og réttlætid farid lángt í burtu; sannleikurinn
verdur undir á þíngunum, og rétturinn nær
ekki ad fá framgáng. 15. Sannleikurinn er
horfinn, og sá sem firrist þad, sem íllt er,
hann verdur ødrum ad herfángi. Drottinn
sjer þetta, og honum mislíkar réttleysid; 16.
hann sjer, ad einginn vill í skérast; hann
undrast ad einginn verdur til ad mæla þeim
líknar. Þá hjálpar þeim armleggur hans,
og hans réttlæti stydur þá. 17. Hann í-
klædist þá réttlætinu, sem pansara, setur á hof-
ud sér hjálm hjálprædisins, fer í herklædi
hefndarinnar, eins og í annan klædnad, og
hjúpar sig vandlætinu, sem ødrum kyrtli. 18.
Eptir því sem hvørr hefir unnid til, eptir því
mun hann gjalda einum og sérhvørjum: mót-
stødumønnum sínum mun hann gjalda heipt,
og óvinum sínum hefnd, og fjarlægum lands-
álfum mun hann gjalda eptir tilverknadi þeirra.
19. Allt í frá nidurgaungu sólar munu menn
óttast nafnid Drottins, og í frá uppgaungu
sólar hans dýrdarvegsemd, þegar skélfíngin
kémur, eins og sá vatnsstreingur, er andi
Drottins leikur á. 20. En frelsari skal koma
til Síonsborgar og til þeirra af Jakobsnidjum,
sem snúa sér frá misgjørdum sínum, segir
Drottinn. 21. Þessi er sá sáttmáli, sem eg
gjøri vid þá, segir Drottinn: Minn andi,
sem er yfir þér, og mín ord, sem eg hefi
lagt í munn þér, skulu ekki frá þínum munni
víkja, né frá munni nidja þinna, né nidja nid-
ja, hédan í frá og ad eilífu, segir Drottinn.

## 60. Kapítuli.

Sældarhagur Gydíngalýds, þegar Frelsarinn kæmi.

1. Statt upp, og tak vid birtunni! því
þitt ljós kémur, og dýrdin Drottins rennur upp
yfir þér. 2. Sjá, myrkur er yfir jørdinni, og
dimma yfir þjódunum; en yfir þér upp renn-
ur Drottinn, og uppi yfir þér opinberast hans
dýrd. 3. Heidíngjarnir munu stefna á ljós
þitt, og Konúngarnir á ljómann, sem upp renn-
ur yfir þér. 4. Hef upp augu þín, og litast
um! þeir koma allir flokkum saman til þín;
synir þínir koma af fjarlægum løndum, og dæt-
ur þínar eru bornar á armleggjum. 5. Vid
þá sýn muntu gledjast, hjarta þitt mun kemast

vid, og þér mun rúmt verda innanbrjósts, þeg-
ar audlegd sjáfarins hverfur til þín, og fjár-
afli þjódanna kémur undir þig. 6. Mergd úlf-
alda, hinir úngu úlfaldarnir frá Midíanslandi
og Effalandi, munu hylja þig; allir Sabamenn
munu koma, færandi gull og reykélsi, og kunn-
gjøra lof Drottins. 7. Allar hjardir Kedar-
ínga (42, 11) munu safnast til þín, og hrút-
ar Nebajotsmanna standa þar til reidu;[1] þeir
munu fórnfærdir verda á altari mínu til þægi-
legrar fórnar, og eg mun prýda minn hinn dýrd-
lega bústad. 8. Hvørjir eru þessir, er koma
fljúgandi, sem ský, og sem dúfur til dúfnabúra?
9. Þad eru fjarlægir strandbyggjar, sem láng-
ar á minn fund; á undan þeim koma skip frá
Tarsís borg, sem færa þér sonu þína úr fjar-
lægum landsálfum; þeir hafa med sér silfur sitt
og gull sitt, Drottni Gudi þínum til vegs, og
hinum heilaga Gudi Ísraels: því þad er hann,
sem gjørir þig vegsamlega. 10. Synir útlend-
ra þjóda munu hlada upp borgarveggi þína,
og Konúngar þeirra munu þjóna þér; því
eins og eg sló þig, þá eg var reidur, eins
miskuna eg þér, þá eg er líknsamur. 11. Á-
vallt skulu borgarhlid þín opin standa, hvørki
skulu þau dag né nótt aptur látin verda, svo
ad herskarar heidíngjanna og hinir adfluttu
(herteknu) Konúngar þeirra verdi inn látnir.
12. Því sú þjód og þad ríki, sem ekki vill
þjóna þér, skal undir lok lída, og þær þjódir
skulu eydilagdar verda. 13. Fegurdarprýdin
Líbanonsfjalls skal til þín koma, furan, beykid,
búsvidurinn, hvad med ødru, til ad prýda
minn helgidómsstad; því eg mun veglegan
gjøra þann stadinn, er fætur mínir á standa.
14. Synir þeirra, sem ádur kúgudu þig, munu
koma til þín, og hneigja sig fyrir þér; allir
þeir, sem ádur smánudu þig, munu fleygja
sér flötum nidur fyrir fætur þér; þeir munu
kalla þig borg Drottins, Síonsborg hins hei-
laga Ísraels Guds. 15. Í stad þess ad þú
ádur varst yfirgéfin, hatud og óbygd, skal eg
gjøra þig ad bústad ævarandi vegsemdar og
fagnadar um aldur og æfi. 16. Þú skalt
drekka mjólk heidíngjanna, og sjúga brjóst Kon-
únganna; og þú skalt vidurkénna, ad eg Drott-
inn er þinn frelsari, og hinn voldugi Jakobs
Gud þinn endurlausnari. 17. Eg skal færa
þér gull í stad eirs, silfur í stad járns, eir fyr-
ir tré, járn fyrir grjót; eg set þér fridinn fyr-
ir forstjóra, og réttlætid fyrir valdsmann. 18.
Í landi þínu skal ekki framar heyrast gétid
um ofríki, og ekki um nokkurt tjón eda eydilegging
innan þinna landamerkja. Þínir borgarvegg-
ir skulu kallast „Hjálpraedi", og þín borgarhlid
„vegsemd". 19. Þú skalt ekki framar hafa
sólina til ad lýsa þér um daga, og túnglid
skal ekki skína til ad géfa þér birtu. Drott-
inn skal vera þér eilíft ljós, og þinn Gud
skal vera þín birta. 20. Þá mun sól þín
ekki framar nidur renna, og túngl þitt ekki
hverfa; því Drottinn skal vera þér eilíft ljós,
og þínir hormúngar dagar skulu enda taka.
21. Allur þinn lýdur skal vera réttlátur, og
eiga landid eilíflega, því hann er sá kvistur,
sem eg hefi gródursett, hann er verk minna
handa, med hvørju eg hefi mig vegsamlegan
gjørt. 22. Af hinum minnsta skulu verda þús-
und, og af hinum lítilmótlegasta skal koma vold-
ug þjód. Eg Drottinn mun slíku fljótt til vegar
koma á sínum tíma.

## 61. Kapítuli.

Spámadur Drottins kunngjørir frelsun Gydínga, og lýsir sæluhag þeirra; lofsaungur þjódarinnar.

1. Andi Drottins hins alvalda er yfir mér,
því Drottinn hefir smurt mig til ad flytja hinum
naudstøddu fagnadarbodskap; hann hefir sendt
mig til ad lækna hin særdu hjørtun, til ad
kunngjøra hinum herteknu frelsi, og hinum fjötr-
udu lausn, 2. til ad kunngjøra líknar ár Drott-

ins (49, 8) og hefndardag vors Guds, til ad hugga alla sorgbitna, 3. til ad sýna og géfa hinum sorgbitnu Síonsborgar innbyggjendum høfuddjásn fyrir øsku, fagnadar vidsmjør fyrir hrygd, vegleg klædi a) fyrir harmþrúnginn anda. Þeir munu kalladir verda „heillavænleg terpentíntré, rótsett af Drottni, honum til vegsemdar". 4. Þeir munu upp byggja hinar fornu borgarrústirnar, vidrétta aptur þad, sem ádur fyrrmeir lá í eydi, reisa af nýu enar nidurbrotnu borgir, sem legid hafa vid velli í marga mannsaldra. 5. Utlendíngar skulu standa yfir hjørdum ydar, og synir útlendra manna vera ydar akurmenn og víngardsmenn. 6. En þér skulud kallast kénnimenn Drottins, og heita þjónar vors Guds; þér skulud njóta audlegdar heidíngjanna, og hafa fullrædi yfir ríkdómi þeirra. 7. Fyrir þá smán, sem ydur hefir verid gjørd, skulud þér fá tvøføld laun; og fyrir þá svívirdíngu, sem þeir urdu ad þola, skulu þeir fagna gladir á ódølum sínum; já, þeir skulu eignast tvøføld ódøl í landi sínu, og eilífur føgnudur skal falla í skaut þeim. 8. Því eg Drottinn elska réttindi, en hata rángfengnar brennifórnir; eg géld þeim réttilega sín laun, og bind vid þá eylíft sáttmál. 9. Afspreingi þeirra skal vera audkéndt medal þjódanna, og afkomendur þeirra medal annara manna, allir, sem sjá þá, skulu þekkja, ad þeir eru sú kynslód, sem Drottinn hefir blessad. 10. Eg vil gledja mig í Drottni, mín sála skal gladvær vera í Gudi míaum, því hann hefir íklædt mig klædum hjálprædisins, og lagt yfir mig kyrtil réttlætisins, eins og þegar brúdgumi lætur á sig prýdilegan høfudbúníng, og brúdur býr sig í skart sitt. 11. Því eins og jørdin lætur grøsin upp koma, og aldingardurinn frækornin upp spretta, eins mun Drottinn hinn alvaldi láta réttlæti og vegsemd upp renna í augsýn allra heidíngja.

## 62. Kapítuli.

Gædska Drottins vid sitt fólk.

1. Søkum Síonsborgar gét eg ekki þagad,
og søkum Jerúsalemsborgar ekki verid kyrr, fyrr
en hennar réttlæti rennur upp, sem ljómi, og
hennar hjálprædi, sem brennandi blys. 2. Þá
skulu heidíngjarnir sjá þitt réttlæti, og allir Kon-
úngar þína vegsemd; og þú skalt nefnd verda
nýu nafni, sem Drottinn sjálfur mun tiltaka.
3. Þú skalt verda sem føgur kóróna í hendi
Drottins, og sem veglegur ennidúkur í hendi vors
Guds. 4. Þú skalt ekki framar nefnd verda
„hin yfirgéfna", og land þitt skal ekki framar
kallast „hid eydilagda", heldur skaltu nefnast
„mín unnusta", og land þitt „eiginkvinna"; því
Drottinn ann þér, og land þitt skal fá eigin-
mann sinn. 5. Því eins og úngur madur fær
meyar, eins skulu synir þínir eignast þig; og
eins og brúdgumi gledst yfir brúdinni, eins mun
þinn Gud gledjast yfir þér. 6. Á borgarvegg-
jum þínum, Jerúsalemsborg, mun eg setja vøku-
menn, sem aldrei skulu þegja, nótt né nýtan
dag. Bidjid án aflláts, þér sem ákallid Drott-
inn! 7. Bidjid hann án afláts, uns hann hef-
ir reist aptur Jerúsalemsborg, og gjørt hana
vegsamlega á jørdinni! 8. Drottinn hefir svar-
id vid sína hægri hønd og vid sinn máttuga
armlegg: Eg skal aldrei hér eptir géfa þínum
óvinum korn þitt ad eta, og synir útlendra
manna skulu aldrei drekka þinn vínberjaløg,
sem þú hefir erfidi fyrir haft; 9. heldur skulu
þeir, sem hirdt hafa kornid, njóta þess, og lofa
Gud fyrir: og þeir, sem vínberjaleginum hafa
safnad, skulu drekka hann í forgardi míns helgi-
dóms. 10. Gángid út, gángid út um borg-
arhlidin! rydjid veginn fyrir fólkinu! hækkid,
hækkid brautina! rydjid burt grjótinu, og set-
jid upp merki fyrir landslýdinn! 11. Sjáid,
Drottinn gjørir heyrum kunnugt allt til enda

V. 3. a. Í stadinn fyrir „vegleg klædi" hafa sumir útleggjendur „lofsaung", adrir „gladværd".

veraldar: Segid Síonsdóttur: sjá, þinn frels-
ari kémur! sjá! hans laun eru í för med hon-
um, og hans endurgjald fer á undan honum.
12. Þeir munu kalladir verda „fólkid heilaga,
hinir endurleystu Drottins", og þú skalt nefn-
ast „borgin fjølsókta og óyfirgéfna".

## 63. Kapituli.

Sigur Drottins yfir óvinum sínum; lofsaungur um Guds miskunsemi og velgjørnínga.

1. Hvørr er þessi, sem kémur í raudlitud-
um klædum frá Edomslandi, frá Bozraborg?
þessi hinn tíguglega búni, sem treystir á sinn
mikla mátt? — Eg em hann, trúfastur í ord-
um og máttugur til ad hjálpa. 2. Hví er
búníngur þinn svo raudur á lit, og klædi þín,
eins og þess, er trodid hefir vínþrúgu? 3.
Eg hefi trodid vínþrúguna aleinn, einginn af
landsfólkinu var med mér; eg tród þá (óvin-
ina) í reidi minni, og sundurmardi þá í heipt
minni; þá hraut løgur þeirra á klædi mín, og
þá verkadi eg klædnad minn. 4. Því eg
hafdi tiltekid hefndardag, og þad ár var komid,
þá eg hafdi ásett mér ad frelsa minn lýd a).
5. Eg litadist um, og sá eingan hjálparmann;
mig undradi stórlega, ad einginn skyldi adstoda
mig. En minn armleggur hjálpadi mér, og
mín heipt adstodadi mig. 6. Þannig tród
eg þjódirnar í reidi minni, gjørdi þær drukkn-
ar í brædi minni, og lét løgin af þeim fljóta
til jardar.

7. Eg vil minnast á velgjørnínga Drottins,
og vídfrægja hans lof fyrir allt þad, er hann
hefir gjørt vid oss, fyrir þá mørgu velgjørn-
ínga, sem hann hefir audsýnt Israels nidjum
af sinni miskunsemi og mikilli gódgirni. 8.
Hann sagdi: „þeir eru þó mitt fólk, þeir eru
børn min, sem ekki ættu ad bregdast mér"; og
hann var þeirra frelsari. 9. Aldrei voru þeir
svo í háska staddir, ad þeim yrdi mein ad; því
Engill sá, sem stendur fyrir hans augliti, hjálp-
adi þeim (2 Mós. 23, 20—23). Af elsku
sinni og vorkunsemi frelsadi hann þá, tók þá
upp og bar þá alla daga hinna fyrri tímanna.
10. En þeir gjørdust mótsnúnir, og hrelldu hans
hinn helga anda; gjørdist hann þá óvinur
þeirra, og bardist sjálfur í móti þeim. 11. Nú
minnist hans fólk hinna fyrri tídanna, þegar
Mósis var á døgum. Hvar er nú hann, sem
lét þá stíga upp af hafinu ásamt med hirdi hjard-
ar sinnar? Hvar er hann, sem lét sinn helga
anda búa midt á medal þeirra? 12. Hann,
sem leiddi hina hægri hønd Mósis med hinum
dýrdarsamlega armlegg sínum? Hann, sem sund-
urklauf vatnid í augsýn þeirra, til þess ad af-
reka sér eylíft nafn? 13. Hann, sem leiddi þá
í gégnum vatnageiminn, svo þeir hnutu ekki held-
ur en hestur sá, er rennur yfir slétta sanda?
14. Andi Drottins færdi þá til hvíldar, eins
og hjørd þá, er ofan gengur í dalinn: eins
leiddir þú þinn lýd, til þess ad afreka þér dýrd-
arsamlegt nafn. 15. Horf nú af himni ofan,
og lít nidur frá hinum heilaga og dýrdarsam-
lega bústad þínum! Hvar er nú þín vandlætíng
og þitt máttarveldi? Hefir hjartagjædska þín
og miskunsemi vid mig dregid sig í hlé? 16.
Þú ert þó vor fadir; því Abraham skiptir sér
ekki af oss, og Israel kannast ekki vid oss. Þú
Drottinn, ert vor fadir, vor frelsari: þad er
þitt nafn frá ørgamalli tíd. 17. Hví létstú
oss, Drottinn, villast af vegum þínum? Hví
létstú hjarta vort hardna, svo þad óttadist þig
ekki? Snú þér, fyrir sakir þinna þjónustumanna,
fyrir sakir ættkvísla arfleifdar þinnar! 18.
Skamma stund sat þitt heilaga fólk í arfi sín-
um; óvinir vorir hafa nidurtrodid þinn helgi-

V. 4. a. Hebr., og ár minna endurleystu var komid. V. 11. Hirdir hjardar Guds; Móses, leidtogi Gyd-
ingalýds. V. 14. Hvíld, óhultur bústadur í Kanverjalandi.

dóm. 19. Vér høfum í lánga tíma verid, eins
og þú hefdir aldrei drottnad yfir oss, og eins
og vér hefdum ekki verid nefndir eptir þínu
nafni.

## 64. Kapítuli.

*Framhald lofsaungsins; bæn Gydíngalýds til Guds.*

1. O, ad þú sundur rifir himininn og færir
ofan híngad, og fjøllin skylfi fyrir þínu augliti,
eins og vatn vellur yfir eldi þeim, er brennur í
þurru limi, til þess ad óvinir þínir kønnudust
vid þitt nafn (þinn mátt), og heidíngjarnir
skylfi fyrir þinni augsýn, 2. eins og (fordum),
þegar þú gjørdir dásemdarverkin, þau er vér
høfdum ekki vænt eptir, og fórst ofan, svo ad
fjøllin skulfu fyrir augliti þínu. 3. Því aldrei
hefir nokkur haft spurn af eda heyrt, og ekkért
auga hefir sjed nokkurn Gud, nema þig, þann
er slíka hluti gjøri fyrir þá, sem á hann vona.
4. Þú líknar þeim, er gjørir med gledi þad,
sem rétt er, og þeim, sem gengur á þínum veg-
um og minnist þín. En sjá, þú varst reidur, af
því vér høfdum svo lengi villst frá þínum veg-
um! O ad vér yrdum frelsadir! 5. Vér vor-
um allir, sem óhreinir menn, og allt vort rétt-
læti var sem saurgad klædi; vér vorum eins og
visin laufblød, og vorar syndir hrifu oss burt,
eins og vindur. 6. Einginn fannst sá, er á-
kalladi þitt nafn; eingum vard þad fyrir, ad
halda sér fløduglega til þín. Þess vegna byrgdir
þú auglit þitt, og létst oss vanmegnast undir valdi
vorra synda. 7. En nú, Drottinn! þú ert
vor fadir. Vér erum leirinn; þú ert sá, sem
myndadir oss; allir erum vér þín handaverk.
8. Reidst eigi, Drottinn, svo stórmjøg! minnst
eigi syndanna eilíflega! Æ, lít þú nidur til
vor, vér erum allir þitt fólk. 9. Þínar hei-
løgu borgir eru eins og eydimørk: Síons-
borg er ordin ad øræfum, Jerúsalemsborg liggur
í eydi. 10. Vort heilaga og veglega hús
hvar fedur vorir vegsømudu þig, er ordid
eldsmatur, og allt þad, sem oss var kjærast,
liggur í eydi. 11. Getur þú leidt slíkt hjá
þér, Drottinn, og þagad, og þjád oss svo mjøg?

## 65. Kapítuli.

*Andsvar Guds; sidaspillíng Gydínga; laun hinna gódu, refsíng hinna vondu, sæluhagur hinna rádvondu Israelsmanna.*

1. Eg hefi bænheyrt þá, sem ekki bádu;
eg lét þá finna mig, sem ekki leitudu mín; eg
sagdi vid þá þjód, sem ekki ákalladi mig:
„sjá! hér em eg". 2. Eg útrétti høndur
mínar daglega til þess fólks, sem er óhlýdugt,
sem gengur á illum vegum eptir egin hugþótta,
3. sem reitir mig jafnlega til reidi, og þad
frammi fyrir minni augsýn; sem fórnfærir í
aldingørdum, og brennir reykelsi á tígulstein-
um; 4. sem lætur fyrirberast í daudra manna
grøfum, og er um nætur í hellrum, etur
svínakjøt, og hefir óhreinan mat í ílátum sín-
um; 5. en segir þó (vid adra: „far þú burt,
kom ekki nærri mér, eg er helgari enn þú".
Þegar eg verd reidur, skulu slíkir menn verda
ad reyk og ad eldi þeim, er allan dag brenn-
ur. 6. Sjá! þad stendur skrifad frammi fyr-
ir mér: eg vil ekki þegja, heldur gjalda, og
gjalda skilvíslega, 7. bædi syndir sjálfra þeirra,
og svo syndir fedra þeirra, segir Drottinn, þeirra
er brendu reykelsi á fjøllum uppi, og smánudu
mig á blóthædunum; eg vil mæla þeim út hid
forna athæfi þeirra, og gjalda þad skilvíslega.

8. Svo segir Drottinn: Eins og menn seg-
ja, þegar løgur finnst í vínberinu, „spill því
ekki, þar er blessan í", eins vil eg og gjøra
søkum minna þjónustumanna, eg vil ekki spilla
øllu. 9. Eg vil láta afspreingi ærlast út af

V. 3. Tígulsteinum, þ. e. ølturum af tigulsteini; bannad var ad hafa ølturu af høggnu grjóti, 2 Mós. 20, 25. V. 4. Grøfum, nefnil. til ad leita frétta hjá framlidnum.

Jakobsnidjum, og út af Júdanidjum erfíngja, er eignast skulu mín fjøll; mínir hinir útvøldu skulu erfa þau, og þjónar mínir búa þar. 10. Saronsvøllur skal verda ad hjardarbóli og Akorsdalur ad nautastødli fyrir þá af mínu fólki, sem leita mín. 11. En þér, sem yfirgéfid Drottinn og gleymid mínu heilaga fjalli, sem setjid bord fyrir Gad og blandid vín fyrir Mení; 12. ydur hefi eg ætlad undir sverdid, og þér skulud allir leggjast nidur ad høggstokknum, af því þér gégndud ekki, þá eg kalladi, og heyrdud ekki, þá eg taladi, heldur adhøfdust þad, sem mér þóknadist ekki. 13. Þess vegna segir Drottinn hinn alvaldi svo: Sjáid! mínir þjónar skulu eta, en þér skulud húngra; sjáid, mínir þjónar skulu drekka, en ydur skal þyrsta; sjáid, mínir þjónar skulu gledjast, en þér skulud glúpna; 14. sjáid, mínir þjónar skulu sýngja fagnandi af hjartans gledi, en þér skulud æpa af hjartasorg, og kveina af hugarángri. 15. Þér skulud leifa mínum útvøldu ydar nøfn til eidfestrar bannfæríngar; því Drottinn hinn alvaldi mun taka ydur af lífi, og nefna þjóna sína med ødru nafni.

16. Hvørr sem óskar sér góds á jørdu, hann skal sér góds óska í nafni hins sanna Guds, og hvørr sem eid vinnur á jørdu, hann skal sverja vid hinn sanna Gud; því hinar fyrri þrautir eru þá gleymdar, þær eru hvorfnar frá mínum augum. 17. Því sjá, eg skapa nýan himin og nýa jørd; hins fyrrveranda skal ekki framar minnst verda, og þad skal eingum í hug koma. 18. Gledjist heldur og fagnid æ og æ yfir því, sem eg skapa; því sjáid, eg ummynda Jerúsalemsborg í føgnud, og innbyggjendur hennar í gledi. 19. Eg vil fagna yfir Jerúsalemsborg, og gledja mig yfir mínu fólki. Þar skal ekki framar heyrast grátstafur eda kveinstafir; 20. þar skal ekkért úngbarn framar finnast, sem ad eins lifi fáa daga, og eingi gamall madur, sem ekki hafi nád fullum aldri; því sá er þar úngur madur, sem deyr tírædur, og sá sem ekki nær tírædis aldri, skal álítast sem bølvadur a). 21. Þeir skulu byggja hús, og búa í þeim, planta víngarda, og eta þeirra ávøxtu. 22. Adrir menn skulu ekki búa í þeim húsum, sem þeir hafa bygt: odrir skulu ekki eta þad, sem þeir hafa gródursett; því aldur míns fólks skal vera sem aldur trjánna; mínir útvøldu skulu sjálfir eyda því, sem þeir hafa unnid med høndum sínum. 23. Þeir skulu ekki erfida til ónýtis, og ekki børn géta til þess, ad þau deyi á úngum aldri; því bædi þeir, og eins afkvæmi þeirra, eru afsprengi þeirra, sem Drottinn hefir blessad. 24. Adur en þeir kalla, vil eg svara; og medan þeir tala, vil eg bænheyra. 25. Ulfar og lømb skulu vera saman á beit, ljónid eta strá, sem uxi, og duptid skal vera ormsins fæda. Hvørgi á mínu heilaga fjalli skulu þau nokkud þad í frammi hafa, sem er íllt eda skadsamlegt, segir Drottinn.

## 66. Kapítuli.

Hegníng hinna þverbrotnu Gydínga og skurdgoda dýrkenda. Samansöfnun Gydíngalýds.

1. Svo segir Drottinn: Himininn er mitt hásæti, og jørdin mín fótskør. Hvada hús er þad þá, er þér viljid byggja mér? og hvør er sá stadur, sem verid géti minn adseturssstadur? 2. Mín hønd gjørdi allt þetta, og þannig er þad allt til ordid, segir Drottinn. En eg vil renna augum mínum annad, til hins volada, til þess, sem hefir sorgfullt hjarta, til

V. 11. Gad og Mení, godanøfn; Gad hamingjugod, Mení, forlagagod. V. 20. a. Þ. e. þad skal álitast sem hyadabol sem hegníng frá Gudi fyrir einhverja drýgda synd, ad hann nær ei tírædu. V. 22. Aldur trjánna, sum tré, t. d. eik, terpentintré, verda afargømul og lifa marga mannsaldra. V. 25. Samanb. Kap. 11, 6 — 9.

þess, sem óttast mín ord. 3. Sá sem slátrar, og hinn sem vegur mann: sá sem fórnfærir saud, og hinn sem banar hundi: sá sem færir matfórn, og hinn sem framber svínablód: sá sem brennir reykélsi, og hinn sem tilbidur godalíkneski: þessir útvelja, hvørr um sig, þad sem er eptir eigin hugþótta þeirra, og láta sér vel líka, þad sem er vidurstyggilegt. 4. Eg vil þá og einnig útvelja þad, sem gjørir þeirra hlut ad verra, og láta yfir þá koma þad, sem þeir hrædast, fyrst eingi þeirra gégndi, þá eg kalladi, og einginn heyrdi, þá eg taladi, heldur adhøfdust þad, sem mér mislíkadi, og útvøldu þad, sem mér þóknadist ekki. 5. Heyrid ord Drottins, þér sem óttist hans ord! Brædur ydar, sem hata ydur, og vilja ekkért samneyti vid ydur hafa fyrir míns nafns sakir, þeir segja: „gjøri Drottinn sig dýrdlegan, svo vér megum sjá ydar føgnud"; en þeir skulu verda til smánar.

6. Einhvørr gnýr heyrist frá borginni, einhvørr raust frá musterinu; þad er raust Drottins, sem géldur óvinum sínum þad, sem þeir hafa til unnid. 7. Hún (Sionsborg) fædir, ádur en hún kénnir sín; hún er ordin léttari ad sveinbarni, ádur en jódsóttin kémur ad henni. 8. Hvørr hefir heyrt slíkt? Hvørr hefir sjed dæmi til slíks? Gétur nokkurt land fædst á einum degi, eda nokkur þjód komid til allt í einu? Og þó skuli Sionsborg hafa fædt børn sín, ádur en hún kéndi sóttar! — 9. Skylda eg, sem læt fædíngarstadinn opnast, ekki géta látid fóstrid fædast? segir Drottinn. Eg, sem læt lífsávøxtinn fædast, skylda eg sjálfur vera ávaxtarlaus? segir þinn Gud. 10. Gledjid ydur ásamt med Jerúsalemsborg, fagnid yfir henni, allir þér, sem hafid hana kjæra! Verid gladir ásamt med henni, allir þér, sem vorud hryggvir yfir henni. 11. Því þér skulud sjúga, og saddir verda af hennar endurnærandi brjóstum; þér skulud teyga, og gjæda ydur med hennar ríkdóms gnótt. 12. Því svo segir Drottinn: Sjá, eg veiti velsældinni til hennar, eins og vatnsstraumi, og ríkdómi heidíngjanna, eins og bakkafullum læk; þér skulud liggja á brjóstum hennar, og hún skal bera ydur, og hafa barnagjælur vid ydur á knjám sér. 13. Eins og módirin huggar barn sitt, eins skal eg ydur hugga; í Jerúsalemsborg skulud þér huggadir verda. 14. Þér munud sjá þad, og ydvart hjarta mun fagna, og ydar bein blómgast, sem gras; því hønd Drottins mun audkénd verda á þjónum hans, og hans reidi á óvinum hans. 15. Því, sjáid, Drottinn kémur í eldi — hans vagn er sem vindbylur — til ad gjalda reidi sína med heipt, og hótan sína med eldslogum. 16. Því med eldi og med sínu sverdi mun Drottinn allt hold dæma, og þá mun stór verda sá valkøstur, er Drottinn fellir. 17. Þeir sem helga sig og hreinsa innst í eikagørdunum, einn hér og annar þar; þeir sem eta svínakjøt, óhrein dýr og músarhéra, skulu allir undir lok lída, segir Drottinn. 18. Eg þekki ydar athafnir og hugsanir. Sá tími kémur, ad eg mun samansafna øllum þjódum, hvørrar túngu sem eru; þær skulu koma og sjá mína dýrd. 19. Eg vil setja teikn á nokkura þeirra, og þá af þeim, sem undan hafa komist (hegníngunni), vil eg senda til heidíngjanna í Tarsisborg, til Fúllands, Lúdlands, Bogmannalands, Tíberanalands, Jónalands (Grikklands), og til fjarlægra landsálfa, sem ekki hafa neina fregn af mér, og ekki sjed mína dýrd; og þeir skulu kunngjøra mína dýrd medal heidíngjanna. 20. Allir brædur ydar skulu fluttir verda úr øllum heidnum løndum,

V. 7. Borginni er hér líkt vid módur, en meiníngin er: Eg mun vidrétta hag borgarinnar og alls Gydíngalýds, ádur enn nokkurn mann varir.

Drottni til fórnar, á hestum, kérrum, vøgnum, á múlum og úlføldum, til míns heilaga fjalls, til Jerúsalemsborgar, segir Drottinn; eins og þá Ísraelsfólk færir matarfórn í hreinum kérum til Drottins húss. 21. Af þeim vil eg einnig taka kénnimenn og Levíta, segir Drottinn. 22. Því eins og hinn nýi himin og hin nýa jørd, sem eg skapa, standa fyrir mínu augliti, segir Drottinn, eins skal ydar afspreingi og nafn standa. 23. Og frá einni túnglkomu til annarar, frá einum hvíldardegi til annars, skulu allir menn koma, til ad tilbidja fyrir mínu augliti, segir Drottinn. 24. Og þeir skulu útgánga (úr borginni), og sjá hræ þeirra manna, sem fallid hafa frá mér; því þeirra ormur skal ekki deya, og þeirra eldur ekki útslokkna, og þau skulu vera hvørjum manni vidurstyggileg.

# Spámadurinn Jeremías.

## 1ti Kapítuli til 40ta inniheldur Spádóma og søgu Jeremías, til Jerúsalems eydileggingar.

### 1. Kapítuli.

Jeremías er kalladur, fær tvær opinberanir.

1. Ord Jeremía, sonar Hilkía, sem var einn
af prestunum í Anatot, í Benjamínslandi, 2. til
hvørs ord Drottins kom á døgum Jósía Amonssonar, Júda Kóngs, á 13da ári hans ríkisstjórnar,
3. og kom (líka) á døgum Jójakims, Jósíasonar,
Júda Kóngs, allt ad enda þess ellefta árs Sedekía, Jósíasonar, Júda Kóngs, allt ad Jerúsalems innbúa herleidíngu, í þeim fimta mánudi.

4. Og ord Drottins kom til mín og sagdi: 5.
ádurenn eg myndadi þig í módur lífi þekkti eg þig,
og ádur enn þú komst af módurlífi, vígdi eg þig;
eg setti þig til ad vera Spámann þjódanna.
6. Og eg mælti: æ herra Drottinn! sjá, eg
kann ekki ad tala, því eg em úngur. 7. Og
Drottinn sagdi vid mig: seg þú ekki, eg em
úngur; heldur far þú til allra sem eg sendi
þig til og tala þad sem eg býd þér! 8. Ottastu
þá ekki! því eg er med þér, til ad hjálpa þér,
segir Drottinn. 9. Og Drottinn útrétti sína
hønd og snart minn munn, og Drottinn mælti
til mín: sjá! eg legg mín ord í þinn munn.
10. Skoda þú, eg set þig á þessum degi yfir
þjódir og yfir Kóngsríki, til þess ad uppræta og
sundurmola, skémma og eydileggja; til þess ad
uppbyggja og gródursetja.

11. Og ord Drottins kom til mín, og
mælti: hvad sjer þú Jeremía? Og eg svaradi: eg sje a) vakandi staf. 12. Og Drottinn mælti til mín: þú sást rétt, því eg vaki
yfir mínu ordi ad eg framkvæmi þad. 13.
Í annad sinn kom ord Drottins til mín, og
mælti: hvad sjer þú? Og eg svaradi: eg sje
sjódandi pott stefna ad nordan. 14. Og
Drottinn sagdi vid mig: frá nordri mun ólukkan brjótast inná alla landsins innbúa; 15.
því sjá! eg kalla allar kynkvíslir ríkjanna ad

V. 11. *a.* Mandeltré skal blómgast fyrr á vorin enn ønnur tré, og því var þad kallad vakandi tré, ødru nafni. V. 13. Ad nordan; Hebr. og hans andlit frá andliti nordursins.

nordan, segir Drottinn, ad þær komi, og hvør þeirra setji sinn stól fyrir Jerúsalems borgarhlid, og móti øllum hennar múrvegg, allt um kríng og móti øllum Júdastødum. 16. Og eg mun upp segja dóm yfir þeim, sakir allra þeirra illgjørda, ad þeir yfirgáfu mig, og gjørdu reyk fyrir ødrum gudum, og hafa tilbedid sín handaverk. 17. En gyrd þú þínar lendar og tak þig upp, og tala til þeirra, allt sem eg mun bjóda þér; vertu ekki deigur vid þá, svo eg gjøri þig ekki hræddann vid þá. 18. Og sjá! eg gjøri þig í dag ad sterkri borg, ad járnstólpa og ad eirvegg, gégn øllu landinu, Júda Konúngi, hans høfdíngjum, hans prestum og landsfólkinu. 19. Og þeir munu strída á móti þér, en ekkért orka á móti þér, því eg er med þér, segir Drottinn, til ad hjálpa þér.

## 2. Kapítuli.

Mót óhlýdni og afgudadýrkun.

1. Og ord Drottins kom til mín og sagdi: 2. far þú og kunngjør fyrir Jerúsalems eyrum, og seg: svo segir Drottinn: eg man til vinskapar þinnar æsku, til elsku þíns brúdarstands, hvørsu þú fylgdir mér á eydimørkina í ósáid land; 3. Israel var Drottni helgadur, frumgródi hans uppskéru, hvør sá vard sekur sem hann vildi eta, ógjæfan kom yfir hann, segir Drottinn.

4. Heyrid ord Drottins, Jakobs hús, og allar ættir Israels húss! 5. svo segir Drottinn: hvør rángindi hafa fedur ydar fundid hjá mér? ad þeir hvurfu frá mér og adhylltust þau fánýtu god, og breyttu heimskulega? 6. Og þeir hugsudu ekki til: hvar er Drottinn, sem flutti oss burt úr Egyptalandi, sem leiddi oss á eydimørkina, í heida og afgrunna landid, í þad þurra og dimma land, hvar um einginn fer, og hvar einginn madur býr? 7. Og eg leiddi ydur inní frjóssamt land, til ad eta þess ávexti og gjædi; og þér komud og saurgudud mitt land, og gjørdud mína eign ad vidbjódi. 8. Prestarnir hugsudu ekki: hvar er Drottinn? og þeir løglærdu þekktu mig ekki, og hirdarar (fólksins) féllu frá mér, og spámennirnir spádu i Baals nafni, og þeir adhylltust þá, sem ekki hjálpa, (nefnil. hjágudina).

9. Sakir þessa mun eg ennfremur fara í mál vid ydur, segir Drottinn, og vid syni ydar sona mun eg fara í mál. 10. Því farid yfir á Sitteanna eyar, og skodid, og sendid til Kedar, og takid eptir og skodid, hvørt nokkud líkt skédur þar? 11. Hvørt nokkur þjód skiptir um gudi? (og þó eru þeir ekki gudir) en mitt fólk hefir látid sína dýrd (Gud) fyrir þá sem ekki hjálpa (hjágudina). 12. Furdid ydur himnar á þessu, verdid hissa og forvida mjøg! segir Drottinn. 13. Því tvennt íllt hefir mitt fólk adhafst: mig yfirgáfu þeir, uppsprettu þess lifanda vatns, til ad grafa sér brunna, leka brunna, sem ekki halda vatni. 14. Er Israel nokkur þræll? eda er hann þræls barn? því er hann ordinn ad herfángi? 15. Móti honum grenja ljónin og láta sína raust heyra og gjøra hans land ad audn; stadirnir verda brendir, innbyggjaralausir. 16. Synir Nofs og Tafanes munu ríkja, brjóta kórónuna af þínu høfdi. 17. Er þad ekki orsøkin, ad þú yfirgafst Drottinn, þinn Gud, einmidt þá, þegar hann vildi leida þig veginn? 18. Og hvad kémur þér vid veguriinn til Egyptalands, til ad drekka vatnid úr Sikor (Níl)? Og hvad kémur þér vid veguriinn til Assýríu, til ad drekka vatn árinnar (Frat)? 19. Þín vondska mun aga þig, og þitt fráfall refsa þér, og þú munt kannast vid og sjá, hvørsu slæmt og biturt þad er, ad yfirgéfa Drottinn, þinn Gud, og óttast hann ekki, segir Herrann, Drottinn herskaranna.

V. 16. Adr: reita af þér hárid. Nof og Taf: Egyptskir stadir, Memfis og Dafne.

20. Því fyrir laungu síðan hefir a) þú þitt ok í sundurbrotið, slitið af þér böndin og sagt: eg vil ekki undirgéfin vera! á sérhvörjum háum hól og undir sérhvörju grænu tré, tókstu framhjá mér. 21. Eg gróðursetti þig með eðla vínberjum, eintómt ekta sáð, en hvörsu hefir þú breitst mér í vínberja klasa útlendsks vínviðar! 22. Já! þó þú nú þvoir þig með lút, og tækir þér mikla sápu, óhrein væri samt þín ódygð fyrir mér, segir Herrann Drottinn.

23. Hvörnig dyrfist þú að segja: eg hefi ekki gjört mig óhreina, ekki aðhyllst Baal. Hygg að þínu athæfi í dalnum! kannast þú við það sem þú hefir gjört, þú, léttfætt únga úlfalds fylja, sem hleypur til og frá, 24. þú (sem) villiasna, vön á afrétti (eyðimörku), er í sínum girndarbruna tekur öndina á lopti. Hvör gétur henni aptrað? þeir sem hennar leita, hlaupa sig ekki b) móða; í hennar mánuði finna þeir hana. 25. Vara þinn fót frá að hlaupa af sér skóna, og þinn háls þyrstann! en þú segir: forgéfins! nei, eg elska þá útlendu og legg lag mitt við þá.

26. Eins og þjófurinn sneypist, þegar hann er staðinn að (þyfi), eins er Ísraels hús sneypt, það, þess Kóngar, höfðíngjar, prestar og spámenn, 27. þá þeir segja við tréð: þú ert minn faðir! og við steininn, þú hefir gétið mig! því við mér snúa þeir baki og ekki andliti; en á ólukkunnar tíma segja þeir: upp nú, og hjálpa oss! 28. Hvar eru nú þínir guðir, sem þú hefir gjört þér? Láttu þá uppstanda, ef þeir géta hjálpað þér á neyðarinnar tíma? Því eins margir og þínir staðir eru, Júda, eins margir eru þínir guðir. 29. Því þráttið þér við mig? Þér eruð allir frá mér fallnir, segir Drottinn. 30. Til einkis hefi eg yðar syni sleigið; aga tóku þeir ekki; yðar sverð tortíndi yðar spámönnum, eins og grimmt ljón.

31. Þú uppiverandi kynslóð! takið eptir orði Drottins! hefi eg verið nokkur eyðimörk fyrir Ísrael, eða dimmufullt land? Því segir þá mitt fólk: vér reikum hér og hvar, komum ekki til þín! 32. Ætla að meyan gleymi sínu skarti, eða brúðurin sínu belti? En mitt fólk hefir gleymt mér fyrir laungu. 33. Hvörsu fallega fer þú að ráði þínu, til að leita þér ástar! þú venur þess vegna þína breitni á illvirki. 34. Jafnvel á faldi þinna klæða er blóð saklausra auminga; þú hefir ekki gripið þá í innbroti, og samt sem áður (hefir þú deydt þá). 35. Og þó segir þú: eg em saklaus, já, hans reiði mun frá mér snúast. Sjá, eg vil gánga í dóm við þig, fyrir það að þú segir: eg hefi ekki syndgað. 36. Því hleypur þú svo mikið til að breita þínum vegi? Líka vegna Egyptalands munt þú til skammar verða, eins og þú ert orðin það vegna Assýríu. 37. Líka muntu frá þessum (þeim Egyptsku) burt gánga og slá saman höndum yfir höfði þér, því Drottinn útskúfar þeim, sem þú treystir á, og þeir munu ekki lánast þér.

## 3. Kapítuli.

Ræða haldin á Jósía dögum.

1. Hann segir: ef maður nokkur hefir látið frá sér konu sína, og hún fer frá honum og verður annars manns: má hann þá til hennar aptur hverfa? mundi ekki landið (af því) vanhelgast? En þú tókst fram hjá með mörgum elskuga, og skyldir þú aptur til mín hverfa? 2. Renn þínum augum uppá hæðirnar og sjáðu! Hvar hefir þú ei verið svívirt? Á vegum situr þú um þá eins og þeir arabisku í eyðimörkinni og vanhelgar landið með þinni ótrygð og vondsku. 3. Og regnskúrum var haldið til baka og vorskúrir komu ekki; en þá hafðir hóru enni og vildir ekki skammast þín. 4. Er

V. 20. *a.* Aðr: eptir öðrum lestri: hefi eg. V. 24. *b.* Sjá! það er til einkis að elta hana.

þad ekki satt? en þá kallar þú til mín: (og
segir:) fadir minn! vinur minnar æsku varst þú.
5. Ætla hann ræki þad vid mig eilíflega, muni
þad alltaf? sjá, svo talar þú, en þú adhefst
íllt og kémur því fram.

6. Og Drottinn sagdi vid mig á døgum
Jósía Kóngs: sjer þú þad sem sú ótrúa Israels
(þjód) hefir adhafst? Hún hefir gengid uppá
sérhvørt hátt fjall og undir sérhvørt grænt tré,
og þar tekid framhjá. 7. Og eg hugsadi: ept-
ir ad hún hefir allt þetta adhafst, mun hún
koma til mín aptur, en hún er ekki aptursnúin.
Og þad sá hennar ótrúa systir Júda (þjódin).
8. Og eg sá, ad þó eg, sakir þessa, ad sú ótrúa
Israels þjód, hafdi rofid hjónabandid, útskúf-
adi henni, og gjæfi skilnadar skrá, óttadist sú
ótrúa Júda (þjód), hennar systir, þad ekki ad
heldur og fór og tók líka framhjá. 9. Og
þad var skéd vegna hennar hróplegu hórunar;
því hún hafdi landid saurgad og framhjá tek-
id med stokk og steini. 10. En allt fyrir þad
hvarf ei til mín aptur hennar ótrúa systir, Júda
(þjódin), med einlægu hjarta, heldur med falsi,
segir Drottinn.

11. Og Drottinn mælti til mín: réttlát sýn-
ist mér sú fráfallna Israels (þjód) fremur en
sú ótrúa Júda (þjód). 12. Far þú og kalla
þessi ord mót nordri og seg: hverf til baka,
fráfallna Israels (þjód), segir Drottinn; eg vil
ekki reiduglega til ydar líta, því eg er nádug-
ur, segir Drottinn, eg skal ei vera lángrækinn
eilíflega. 13. Kannastu ad eins vid þína sekt;
því frá Drottni þínum Gudi ertu fallin og
þú hljópst híngad og þángad til þeirra útlendu,
undir hvørt grænt tré, en minni raust gegndud
þér ekki, segir Drottinn.

14. Komid aptur þér fráføllnu synir, segir
Drottinn, því eg er ydar herra, og eg vil
vid ydur taka (þó ekki kjæmi nema) einn úr
borg og tveir af ætt, og flytja ydur til Síon.
15. Og eg skal géfa ydur hirdara eptir mínu
sinni, sem vakti ydur med greind og framsýni.
16. Og þad mun ské, þá þér fjølgid og erud
frjófsamir í landinu á þeim sømu døgum, segir
Drottinn: þá munu menn ekki framar tala um
sáttmálsørk Drottins, og hún mun engum í hug
koma, og menn munu ekki hugsa til hennar,
né hennar vitja, og ei mun framar (ønnur) gjørd
verda. 17. Á þeim sama tíma munu menn
nefna Jerúsalem Drottins hásæti, og allar þjód-
ir munu til hennar safnast sakir Drottins nafns,
og þær munu ekki framar gánga eptir þrjótsku
þeirra vonda hjarta. 18. Á þeim sømu døg-
um mun Júda hús gánga med Israels húsi,
og þeir munu saman koma úr landinu, nordur-
frá, í landid sem eg hefi géfid ydar fedrum til
eignar. 19. Og eg sagdi: hvørnig (med hvørju
skilyrdi) skal eg setja þig medal barnanna og
géfa þér yndislegt land, ágjæta eign medal þjód-
anna herflokka? og eg hugsadi: þér munud kalla
mig fødur, (minn fadir) og ekki frá mér víkja.
20. En eins og kona verdur ótrú sínum elskuga,
eins urdud þér ótrúir mér, þú Israels ætt!
segir Drottinn. 21. Rødd heyrist af hædun-
um, grátbeidni Israels sona, af því þeir hafi
illa breitt og gleymt Drottni þeirra Gudi. 22.
Komid aptur, þér fráføllnu synir! eg skal bæta
úr ydar fráfalli. „Sjá, vér komum til þín; því
þú Drottinn ert vor Gud. 23. Sannarlega
er svikul hjálpin frá hædunum og þeim mørgu
fjøllum! Sannarlega er Israels hjálp hjá Drottni
vorum Gudi. 24. En þau skammarlegu god
gleyptu afla vorra fedra frá vorri æsku, þeirra
saudi og þeirra naut, þeirra syni og þeirra dæt-
ur; 25. Vér liggjum í vorri vanvirdu og vor
skømm þekur oss; því mót Drottni vorum Gudi
høfum vér syndgad, vér og vorir fedur frá
vorri æsku allt til þessa dags, og vér gegnd-
um ekki raust Drottins vors Guds“.

## 4. Kapítuli.

Sama rædan.

1. Ef þú snýr þér, Israel, til mín, segir Drottinn, svo muntu aptur koma heim (í landid), og ef þú snarar frá þér vidbjódnum (godunum), svo muntu ekki framar hrekjast; 2. og ef þú sver vid Drottinn sannlega, tilhlýdilega og réttvíslega: svo munu þjódirnar hljóta blessan af honum, (Drottni), og hrósa sér af honum. 3. Því svo segir Drottinn til Júda manna, og til Jerúsalem: plægid ydur nýtt land, og sáid ekki milli þyrna! 4. Látid ydur umskéra fyrir Drottni, og burttakid yfirhúd ydars hjarta, þér menn af Júda og Jerúsalems innbúar! svo mín reidi brjótist ei út sem eldur og brenni ósløkkvanlega sakir vondsku ydar athafna.

5. Kunngjørid í Júda, kallid í Jerúsalem, og segid, og blásid í básúnu í landinu, kallid hátt og segid: heimtist saman, og látum oss fara í þær sterku borgir! 6. Setjid upp merki ad Síon ávid, flýid, standid ei vid! því med ólukku kém eg, ad nordan, og mikid tjón. 7. Ljón kémur úr sínum runna, og þjódanna eydileggjari tekur sig upp, geingur fram af sínum stad, til ad gjøra þitt land ad audn; þínar borgir verda eydilagdar, og einginn býr í þeim. 8. Girdist því sekk, kvartid og veinid! því ekki snýr Guds brennandi reidi frá oss. 9. Og þad mun ské á þeim sama degi, segir Drottinn, ad Kóngurinn og høfdíngjarnir munu missa hug, prestarnir skélfast, og spámennirnir verda hissa.

10. Þá mælti eg: æ Herra, Drottinn! sannarlega hefir þú brugdist þessu fólki og Jerúsalem, þar þú sagdir: ydur mun vel vegna, þared þó sverdid þreyngir sér innad sálinni!

11. Á sama tíma mun þessu fólki og Jerúsalem sagt verda: brennandi vindur (kémur) frá hædunum í eydimørkinni, og stefnir á mitt fólk, hvørki til ad vinsa né hreinsa. 12. Vindur, sterkari enn því svari, mun frá mér koma: nú vil eg líka dóm á þá leggja.

13. Sjá! eins og ský lídur hann áfram, og hans vagnar eru líkir hvirfil bil, fljótari enn ernir hans hestar. „Vei oss, vér verdum eydilagdir"! 14. Þvo þitt hjarta hreint, Jerúsalem, af íllskunni, svo þú frelsist! hvørsu leingi skulu innra med þér búa illar hugsanir. 15. Því rødd segir tídindi frá Dan, og bodar ólukku frá Efraimsfjalli. 16. Segid þad fólkinu! sjá! kunngjørid þad Jerúsalem: umsátursmenn koma úr framandi landi og láta sína raust glymja móti Júda stødum. 17. Sem landverdir eru þeir allt um kríng Jerúsalem; því hún var þverbrotin mér, segir Drottinn. 18. Þín breitni og þín verk hafa þér þetta bakad, þad eru ávextir þinnar íllsku, já, beiskt er þad, geingur næst lífi þínu.

19. „Mín innifli, mín innifli! mér er íllt fyrir hjartanu, mitt hjarta idar! eg gét ekki þagad! því herlúdurs hljóm heyrir þú, mín sál, og strídsóp. 20. Tjón á tjón ofan er kallad; því allt landid verdur eydt; sviplega verda mínar tjaldbúdir afmádar, óvænt mínir tjalddúkar. 21. Hvad leingi skal eg sjá merkid, hvad leingi heyra herlúdursins hljóm? 22. „„Því heimskt er mitt fólk, mig þekkir þad ekki, fávísir synir eru þeir, og án skilníngs; vit hafa þeir til ad gjøra íllt, en ad gjøra gott kunna þeir ekki"". 23. Eg lít á jørdina, sjá! hún er í eydi og tóm, og til himins, og ekkért ljós er á honum. 24. Eg lít til fjallanna, og sjá! þau bifast, og allar hædir ruggast. 25. Eg litast um, og sjá! þar er einginn madur, og allir fuglar himinsins eru burt fældir. 26. Eg lít í kríngum mig, og Karmel (fjall) er eydilagt, og allir þess stadir nid-

V. 2. Vid Drottinn; Hebr. Drottins líf.

ur brotnir, fyrir augliti Drottins, fyrir hans
brennandi reidi.
27. Því svo segir Drottinn: audn skal allt
landid verda; samt vil eg ekki gjörsamlega
gjöra út af vid það. 28. Því syrgir landid,
og himininn upp yfir er dimmur, af því eg
hefi talad það, áliktad það, og ydrast þess
ekki, og mun ekki vid það hætta. 29. Fyrir
harki reidmannsins og bogmannsins flýr hvør
borg, þeir skrída inní runnana, og stíga upp á
hamrana; hvør borg er yfirgéfin og einginn inn-
búi er í þeim. 30. Og þú nidurbrotna! hvad
ætlar þú ad gjöra? þó þú klædir þig pur-
pura, þó þú prýdir þig med gull skarti, og litir
med farva þín augu: þú skrýdir þig til einsk-
is; bidlarnir forsmá þig, þeir sitja um þitt líf.
31. Því eg heyri hljód, eins og jódsjúkrar
konu; ángistarvein, eins og þeirrar, sem í fyrsta
sinn fædir, raust dótturinnar Síon: hún styn-
ur med útréttum høndum: „vei mér! mín sál,
vanmegnast fyrir mordíngjunum."

## 5. Kapítuli.

Sama ræda.

1. Gángid um Jerúsalems stræti, og skod-
id og grenslist eptir, og leitid á hennar torg-
um, hvørt þér finnid nokkurn, hvørt einn ydk-
ar réttvísi, leitar sannleikans: þá skal eg fyrir-
géfa henni. 2. Og þó þeir segi; „svo sann-
arlega, sem Drottinn lifir"! sverja þeir eingu
ad sídur meinsæri. 3. Drottinn! stefna þín
augu ekki á sannleikann? Þú slær þá, en þeir
kénna ekki til þess; þú lætur þá tjón líða, þeir
taka eingum aga; þeirra andlit er hardara enn
steinn,, þeir vilja ekki snúa sér. 4. Og eg hugs-
adi: það eru ad eins enir lítilmótlegu, þeir eru
fávísir, því þeir þekkja ekki Drottins veg, rétt-
indi síns Guds. 5. Eg skal gánga til hinna
miklu manna, og tala vid þá; því þeir þekk-
ja þó Drottins veg, réttindi síns Guds. En
allir til samans hafa okid sundurbrotid og slit-
id af sér bøndin.
6. Því mun ljónid úr skóginum vinna á
þeim, og úlfurinn á kvøldin olla þeim tjóns;
Pardusdýrid umsitur þeirra borgir, hvør sem
útúr þeim fer, mun verda sundurrifinn; því
margar eru þeirra syndir, ótal þeirra yfirtrodslur.
7. Hví skyldi eg fyrirgéfa þér? þínir synir
hafa yfirgéfid mig, og sverja vid hjágudi (sem
ekki eru gudir), eg tók af þeim (trygda) eid,
þeir tóku fram hjá, og hlupu í hóruhúsid,
hópum saman. 8. Eins og sællegir stódhestar
hlupu þeir um kríng og snuddudu hvør eptir
annars manns konu: 9. ætti eg ei ad straffa
slíkt, segir Drottinn, ekki láta hefnd koma yfir
annad eins fólk og þetta?
10, Gángid upp borgarvegginn, og nidur-
brjótid, en eydileggid ekki algjørlega! rífid burt
þeirra vínberja klasa! því þeir eru ei Drottins.
11. Því ótrútt vard mér Israels hús og Júda
hús, segir Drottinn. 12. Þeir afneita Drottni,
og segja: „hann er ekki (til), og ekki mun ó-
lukka yfir oss koma, og sverd og sult munum
vér ekki sjá. 13. Og spámennirnir munu
verda ad vindi, og (Drottins) ord er ekki í
þeim: svo verdi þeim sjálfum!". 14. Því
segir Drottinn svo, Gud herskaranna: Medan
þér talid þessi ord, sjá! svo gjöri eg mín ord
í þínum munni ad eldi, og þetta fólk ad vidi,
og það skal þeim eyda. 15. Sjá! eg leidi
yfir ydur fólk, úr fjarlægd, Israels hús, segir
Drottinn: það er øflugt fólk, eitthvørt það
elsta fólk, það fólk, hvørs túngumál þú ekki
þekkir, og skilur ekki hvad það talar. 16.
Þess pílnakofur er sem opin grøf, allir eru
þeir kappar. 17. Og það mun eyda þinni
uppskéru og þínu braudi; þeir munu vinna
tjón þínum sonum og dætrum, eta upp þína

V. 13. Verdi þeim það, sem þeir hóta oss.

saudi og naut; eta upp þín víntré og fíkjutré; það mun niðurbrjóta þínar sterku borgir, er þú reiðir þig á, með sverði. 18. En eingu að síður, á þeim døgum mun eg ekki, segir Drottinn, gjøra útaf við ydur.

19. Og þegar þér segið: hvar fyrir hefir Drottinn vor Guð gjørt oss allt þetta? svo seg þú þeim: „eins og þér yfirgáfuð mig og þjónuðuð útlendra guðum í ydar landi: svo skuluð þér þjóna útlendum í því landi, sem ekki er ydar (land)“. 20. Segðu þessi tíðindi Jakobs húsi, og kunngjør þú það í Júda, og seg: 21. heyri það hið fávísa, skilníngslausa fólk, sem hefir augu og sjer ekki, eyru og heyrir ekki! 22. viljið þér ekki óttast mig, segir Drottinn, viljið þér ekki skjálfa frammi fyrir mér? fyrir mér, sem setti sjónum sand fyrir takmark, eilífa girðíng, sem hann fer ekki yfir, hann ólmast, en vinnur ekki á, og hans bylgjur æða og fara ei yfir (hana). 23. En þetta fólk hefur óviðráðanlegt og þverúðarfullt hjarta; þeir falla frá og gánga burt, 24. og segja ekki í sínu hjarta: látum oss þó óttast Drottinn vorn Guð, sem gefur regn, snemma og seint, á sínum tíma, sem viðheldur handa oss ákveðnum uppskéru vikum. 25. Ydar misgjørðir hafa þessu frá snúið, og ydar syndir burtvikið því góða frá ydur. 26. Því meðal míns fólks eru guðlausir menn: þeir læðast, beigja sig, eins og fuglafángarar, leggja snørur, veiða menn. 27. Eins og fugla karfan er full af tálfuglum, svo eru þeirra hús full af svikum; því verða þeir miklir og ríkir. 28. Feitir eru þeir og þriflegir; já, þeir gjæta ei hófs í vondskunni, eingin málefni taka þeir að sér, ekki málefni þess munaðarlausa, og það lánast þeim, og rétt hins fátæka verja þeir ekki. 29. Á eg ekki að hegna fyrir slíkt, segir Drottinn, eða hefnast á øðru eins fólki og þessu?

30. Viðbjóðslegt og óttalegt skéður í landinu. 31. Spámennirnir kénna lygar og drottna undir þeirra vernd, og mitt fólk vill svo hafa það. En hvað ætla þér gjørið, þegar að endirnum dregur?

## 6. Kapítuli.

*Sama ræða.*

1. Flýið Benjamínssynir, úr Jerúsalem, og blásið í básúnu í Tekóa, og reisið upp merki í Betkerem! því ólukka veður hér inn norðan að, og mikið tjón. 2. Þá fríðu og táplausu niðurríf eg, Síons dóttur! 3. Til hennar koma hirðarar með sínar hjarðir, setja tjøld allt í kríngum hana, og hvøreinn lætur sitt afmarkaða pláts uppbítast. 4. „Búið ydur til stríðs móti henni! af stað! látum oss um miðdegi komast upp! vei oss! því degi hallar, kvøldskuggarnir leingjast. 5. Af stað! gaungum uppí hana í nótt og rífum niður hennar hallir“. 6. Því svo segir Drottinn Herskaranna: fellið tré og gjørið vegg móti Jerúsalem! Hún er sú borg sem á að refsa, hún er innra full ránglætis. 7. Því eins og lind upp vellir vatni, svo uppvellir hún illsku. Ofbeldi og undirþrikkíng heyrist í henni jafnan, frammi fyrir mér, áverkar og dráp. 8. Bæt þú ráð þitt, Jerúsalem, að mín sál slíti sig ekki frá þér, að eg gjøri þig ekki að auðn, að óbyggðu landi!

9. Svo segir Drottinn herskaranna: þeir munu samanlesa Ísraels leifar eptirá, eins og vínber. Flyt þína hønd eins og sá sem samanles vínber aptur og aptur að kørfunni! 10. Við hvørn á eg að tala og aðvara, að þeir heyri? Sjá, óumskorin eru þeirra eyru, og þeir geta ei sýnt athygli. Sjá, Drottins orð er

V. 27. Fuglar voru hafðir í körfum útá skógum til að ginna að aðra fugla. V. 1. Tekóa og Betkerem, staðir á hálandi. V. 3. Hirðarar etc. her=kongar með her.

ordid þeim ad hádi, þeir hafa einga lyst á því.
11. En eg em fullur af heitíngum Drottins,
er uppgéfinn ad halda þeim (hjá mér). Aus
þeim út yfir barnid á gøtunni, og yfir únglínga
hópinn allan saman; því madur sem kona munu
verda hertekin, gamlir og ørvasa. 12. Og
þeirra hús mun verda annara eign, akrar og
konur, alltsaman. Því eg mun útrétta mína
hønd yfir innbúa landsins, segir Drottinn. 13.
Því allir eru sólgnir í ábata, smáir og stórir,
og frá spámønnum til prestanna, ydka þeir øll
svik. 14. Þeir lækna sár míns fólks med hægu
móti (gjøra lítid úr þeim), segjandi: fridur!
fridur! og þó er einginn fridur. 15. Þeir
verda til skammar, því vidurstygd adhafast þeir;
ekki skammast þeir sín samt, þeir kunna þad
ekki; því munu þeir falla medal þeirra sem falla,
og þegar eg heimsæki þá, segir Drottinn, munu
þeir steypast.

16. Svo segir Drottinn: gángid á veginn
og litist um og spyrjid ad hinni gømlu gøtu,
hvør ad sé sá gódi vegur, og gángid hann: svo
munud þér finna hvíld ydar sálum. — En þeir
segja: vér viljum ekki fara hann. 17. Og eg
hefi sett yfir ydur vaktara (segjandi) takid eptir
básúnu hljómnum! en þeir segja: vér viljum ekki
eptir honum taka. 18. Heyrid þar fyrir þjódir!
fréttid þér samkomur! hvad medal þeirra (gjør-
ist). 19. Heyr þad jørd! sjá, eg leidi ólukku
yfir þetta fólk, ávøxt þeirra hugsana; því mín-
um ordum géfa þeir ekki gaum, og mitt løgmál
forsmá þeir.

20. Hvad skeyti eg um reykelsi sem kémur
frá Sabeu og um þann góda kanelbørk úr fjær-
lægu landi? ydar brennifórnir eru mér ekki
gédfeldar, og ydar sláturfórnir líka mér ekki.
21. Því segir Drottinn svo: sjá, eg legg ásteyt-
íngu fyrir þetta fólk, á hana skulu fadir og son-
ur reka sig hvør med ødrum, og nábúinn og
hans vinur, og fyrirfarast.

22. Svo segir Drottinn: sjá, fólk kémur úr
landi nordursins, og mikil þjód rís upp utast
á jørdunni. 23. Þeir bera boga og skotvopn,
grimmir eru þeir og miskunarlausir, þeirra raust
dunar sem sjórinn, og hestum rída þeir, út-
búnir sem einn madur til stríds á móti þér,
Síonsdóttir! 24. Vér fréttum til þeirra;
vorar høndur verda magnlausar, ángist grípur
oss, sótt, lík þeirrar sem elur barn. 25. Far
ekki út á akurinn, gakk ekki um veginn! því
ótti fyrir óvina sverdi er allt um kríng. 26.
Æ! mitt fólk, legg um þig sekk og veltu þér í
øsku, harma þú, eins og (þú ættir ad syrgja)
einkason, biturlega! því skyndilega yfirfellur
eydileggjarinn oss.

27. Ransakara míns fólks hefi eg gjørt þig,
sterkan kastala a), ad þú þekkir og ransakir þeirra
vegu. 28. Allir eru þeir fráfallnir og þrjótsku-
fullir illmælendur, eir og járn; allir eru þeir
illgjørdamenn. 29. Smidju belgurinn er brunn-
inn, blýid er brádnad í eldi, forgéfins bræda
menn aptur og aptur, og þeir vondu verda ei
adskildir (frá hinum). 30. Ónýtt silfur kalla
menn þá, því Drottinn hefir burtskúfad þeim.

## 7. Kapítuli.

Ønnur ræda lík þeirri fyrri.

1. (Þetta er) þad ord, sem kom frá Drottni
til Jeremías, og sagdi: 2. gakk í dyr Drottins
húss, og úthrópa þar þessi ord og seg: heyrid ord
Drottins, allir af Júda, sem gángid inn um
þessar dyr, ad tilbidja frammi fyrir Drottni!
3. Svo segir Drottinn herskaranna, Israels
Gud: bætid ydar breitni og ydar athæfi, svo
vil eg lofa ydur ad búa á þessum stad. 4.
Reidid ydur ekki á lyga tal, þá menn segja:
þetta er musteri Drottins, musteri Drottins,

V. 27. a. Sem þínir mótstødumenn skulu ei vinna á.

musteri Drottins! 5. Því ef þér bætid ydar
breitni og athæfi, ef þér ydkid réttvísi hvør
vid annan, 6. undirþrikkid ei útlendíng, mun=
adarleysíng né ekkju, úthellid ei saklausu blódi á
þessum stad, adhyllist ei adra Gudi ydur til
tjóns: 7. þá læt eg ydur búa á þessum stad,
í landinu, sem eg hefi géfid ydar fedrum frá
eilífd til eilífdar. 8. Sjá! þér reidid ydur á
lygatal, sem ekki stodar. 9. Þér stelid, myrd=
id, hórist, sverjid meinsæri, giørid reyk fyrir
Baal, adhyllist adra Gudi, sem þér ekki þekkid;
10. og svo komid þér, gángid fyrir mitt aug=
lit í þessu húsi, sem nefnt er eptir mínu nafni,
og hugsid: „óhætt er oss þó vér adhøfumst
alla þessa svívirdíngu“. 11. Er þá þetta
hús, sem nefnt er eptir mínu nafni, ordid mord=
íngja bæli fyrir ydar augum? þetta hefi eg
líka sjed, segir Drottinn.

12. Því farid nú til míns bústadar, sem
var í Síló, hvar eg fordum lét mitt nafn búa,
og sjáid hvad eg hefi gjørt vid hann, sakir
vondsku míns fólks Israels! 13. og þared þér
nú adhafist allt þetta, segir Drottinn, og eg
hefi þó talad vid ydur frá því snemma morg=
uns, (seint og snemma) hafid þér ekki hlýdt,
og þó eg hafi kallad ydur, hafid þér ekki
svarad: 14. Svo fer eg med húsid sem nefnt
er eptir mínu nafni, og sem þér treystid á, og
med landid sem eg hefi géfid ydur, og ydar
fedrum, eins og eg fór med Síló, 15. og út=
skúfa ydur frá mínu angliti, eins og eg hefi
útskúfad øllum ydar brædrum, Efraimsnidjum.
16. En bid þú ekki fyrir þetta fólk, og upp=
hef ei fyrir þad bæn og grátbeidni, og legg
þú ekki ad mér; því eg heyri þig ekki. 17.
Sjerdu ekki þad sem þeir adhafast í Júda stød=
um, og á Jerúsalems strætum? 18. Børnin
tína saman vid, og fedurnir kveikja eld, og
konurnar hnoda deig, til ad gjøra himinsíns
Drottníngu køku, og færa þakkarfórn framandi
gudum, til ad strída mér. 19. En strída þeir
mér, segir Drottinn, ekki sjálfum sér, til sneypu
eigin andlitis?

20. Því segir Herrann, Drottinn, svo: sjá!
mín reidi og grimd skal sér úthella yfir þennan
stad, menn og fénad, yfir tré landsíns, og á=
vexti akursíns, og hún skal loga og ekki slokna.
21. Svo segir Drottinn herskaranna, Israels
Gud: bætid brennifórninni vid sláturfórnina,
og etid kjøt! 22. Því ekki taladi eg vid ydar
fedur, og ekki baud eg þeim, þá eg flutti þá
burt af Egyptalandi (neitt) um brennifórn og
sláturfórn; 23. heldur baud eg þeim þetta,
og sagdi: heyrid mína raust! svo skal eg vera
ydar Gud, og þér skulud vera mitt fólk og
gángid algjørlega á þeim vegi sem eg mun
bjóda ydur, svo ydur vel vegni; 24. En þeir
heyrdu ekki, og løgdu ekki vid eyrun og gengu
eptir rádum og þverlyndi síns vonda hjarta,
og snéru vid mér bakinu og ekki andlitinu. 25.
Frá þeim degi, ad ydar fedur fóru burt úr
Egyptalandi, allt til þessa dags, sendi eg til
ydar alla mína þjóna, Spámennina, daglega
snemma morguns. 26. En þeir heyrdu mig
ekki, løgdu ekki vid eyrad, og voru hardsvír=
adir; og breittu enn verr en fedur þeirra.
27. Og þó þú talir vid þá øll þessi ord,
svo munu þeir ekki heyra þig; og þó þú kallir
til þeirra, svo ansa þeir þér ekki. 28. Þá
skaltu samt segja til þeirra: þetta er þad
fólk, sem ekki heyrir raust Drottins síns Guds,
og tekur eingri umvøndun; horfin er sann=
leikurinn og afmádur úr þeirra munni.

29. Skér af þér hárid (Jerúsalem)! og
kasta því á jørdina, og upphef þitt kvein á
hædunum, því Drottinn hefir burtkastad og
útskúfad þeirri kynslód sem hann reiddist. 30.
Því Júda synir gjørdu þad, sem íllt er í

V. 21. Færid mér einga brennifórn, etid allt sjálfir.

mínum augum, segir Drottinn; þeir settu sín
vidbjódslegu god í þad hús, sem nefnt var
eptir mínu nafni, til þess ad saurga þad. 31.
Og þeir bygdu Tófets hæd í dal Hinnoms
sona, til þess ad brenna sína syni og dætur í
eldi, sem eg hefi ekki bodid og mér hefir ekki í
hug komid. 32. Sjáid því, dagar koma, segir
Drotinn, þá menn ei munu kalla þad Tófet,
né dal Hinnomssona, heldur dráps dal, og
menn munu jarda í Tófet, af því pláts vantar.
33. Og líkamir þessa fólks munu verda æti
himinsins fugla og landsins dýra, og einginn
mun þau burtfæla. 34. Og enda gjøri eg í
Júda stødum og Jerúsalems strætum, á gledi
raust og føgnudi, raust brúdgumans og brúd-
urinnar; því ad rústum skal landid verda.

## 8. Kapítuli.

Sama ræda.

1. Á sama tíma, segir Drottinn, munu menn
taka úr þeirra grøfum bein Júda Kóngs, og
bein hans høfdíngja, og bein prestanna, og bein
Spámannanna og bein Jerúsalems innbúa, 2.
og breida þau út á móti sólunni og túnglinu,
og øllum himinsins her, sem þeir elskudu, og
sem þeir þjónudu, og sem þeir adhylltust, og
sem þeir leitudu ad, og sem þeir tilbádu; ekki
verdur þeim saman safnad, ei verda þau graf-
in, heldur verda þau ad áburdi á jørdunni. 3.
Og þeir sem eptir verda, munu heldur kjósa
dauda enn líf, þeir eptirordnu af þessari vondu
kynslód, á øllum stødum, hvørt eg hefi þeim
eptirordnu burt snarad, segir Drottinn her-
skaranna.

4. Og seg þeim: svo segir Drottinn: fellur
nokkur svo ad hann vilji ei uppstanda aptur?
villist nokkur af leid, sem ei snúi vid aptur?
5. Hvørsvegna hefir þetta fólk, Jerúsalem, villst
af leid til þess ad villast allt af? Þeir eru
svo fastheldnir á tálinu, þeir vilja ekki vidsnúa.
6. Eg tók eptir øg heyrdi, þeir tala ekki rétt,
eingin ydrast sinnar ílsku, og segir: hvad hefi
eg gjørt? allir beigja af leid í þeirra rás eins
og hestur sem hleypur í orustu. 7. Storkur-
inn undir himninum þekkir sinn tíma, og turt-
ildúfan og tranan og svalan géfa gaum tíma
þeirra apturkomu, en mitt fólk þekkir ekki réttindi
Drottins. 8. Hvørnig gétid þér sagt: vér er-
um vitrir, og vér þekkjum Drottins løgmál?
sannarlega gjørir lygapenni skrifarans (Drott-
ins løgmál) þad ad lýgi. 9. Þeir vitru verda
til skammar, skélkadir og flæktir: sjá, ordi Drott-
ins hafa þeir burtsnarad, og hvørja vitsku
hafa þeir?

10. Því mun eg géfa konur þeirra ødrum,
þeim, akra þeirra, sem ná þeim; því stórir og
smáir eru sólgnir í ábata; frá spámønnum til
presta, ydka þeir øll svik. 11. Og þeir lækna
sár míns fólks med hægu móti segjandi: frid-
ur! fridur! og þó er eingin fridur. 12. Þeir
verda til skammar, því vidbjód adhafast þeir;
ekki skammast þeir sín samt, þeir kunna þad
ekki, því munu þeir falla medal þeirra sem
falla; á þeirra hegníngartíma munu þeir steypast,
segir Drottinn. 13. Enda vil eg á þeim gjøra,
segir Drottinn; eingin vínber skulu eptir verda á
vínvidnum, engar fíkjur á fíkjutrénu, og bløð-
in skulu visna a) (þad sem) eg hefi géfid þeim
skal frá þeim takast.

14. „Yfir hvørjum sitjum vér? heimtist sam-
an ad vér førum í þær sterku borgir og fyrir-
førumst þar, því Drottinn, vor Gud, hefir á-
liktad vora þøgn (dauda) og drykkjad oss med
ólifjunar vatni; því vér høfum syndgad móti
Drottni. 15. Vér væntum gjæfu, en þar er
ekkért gott á ferd, lækníngartíma, og sjá, þar

V. 31. Tófet, (hraka stadur) sem verdskuldar ad hrækt sé á. Á þessum stad voru afgudir mikid dýrkadir. V. 13. *a.* Þad sem eg hefi etc. adrir: þau bodord sem eg hefi géfid þeim, yfirtroda þeir, adr: ødruvisi.

er skélfíng. 16. Frá Dan heyrist frís þeirra
hesta; af hvíi þeirra gradhesta nøtrar allt land-
id; og þeir koma og eyda landid, og þad sem
í því er, stadina og þeirra innbúa. 17. Já,
sjá, eg sendi medal ydar høggorma, basiliska,
móti hvørjum særíngar ekki stoda, þeir skulu
ydur stínga, segir Drottinn. 18. (Hvør géf-
ur) mér hugsvølun í minni mædu? mitt hjarta
er veikt í mér! 19. Sjá, harmakvein míns
fólks hljómar frá fjærlægu landi: „Er Drott-
inn ekki framar í Síon, er hennar Kóngur ekki
í henni?" „Því egndu þeir mig til med sín-
um skurdgodum, med þeim ónýtu gudum hinna
útlendu." 20. „Uppskéran er á enda, ávaxta
safnid búid (sumarid úti) og vér høfum ekki
feingid hjálp!"

21. Sár míns fólks eru mín sár, eg geing
í sorg, ofbod grípur mig. 22. Eru eingin
smyrsli í Gílead, er þar einginn læknir? því er
ekki bundid um sár míns fólks? 23. Æ! ad
mitt høfud væri vatn og mín augu tára upp-
spretta! þá skyldi eg gráta nætur og daga þá
í hel slegnu af mínu fólki!

## 9. Kapítuli.

Enn nú sama ræda.

1. Æ! ad eg hefdi ferdamanna herbergi á
eydimørkinni, þá skyldi eg yfirgéfa mitt fólk
og fara frá því; þvi allir eru þeir hórdóms-
menn, flokkur landrádamanna. 2. Þeir spenna
sína túngu, einsog sinn boga, med lýgi, og med
sannleikanum drottna þeir ekki í landinu; frá
einni vondsku gánga þeir til annarar, og mig
þekkja þeir ekki, segir Drottinn. 3. Varid yd-
ur, hvør einn á sínum vin, og trúid eingum
ydar bródur; því hvør einn bródir vill fella bród-
ur sinn, og hvør einn vinur geingur um kríng
sem rógberi. 4. Og hvøreinn fer á bak vid
vin sinn, og sannleika tala þeir ekki; þeir
æfa sína túngu í því ad tala lygar, og kosta
kapps um ad gjøra rángt. 5. Þú býr midt
á medal svikanna; af svikum færast þeir und-
an ad þekkja mig, segir Drottinn. 6. Því
segir Drottinn herskaranna svo: sjá, eg skal
hreinsa þá og prófa, því hvad skal eg annad
gjøra sakir (Síon) dóttur míns fólks? 7.
Drepandi ør er þeirra túnga, svik tala þeir;
med munninum tala þeir vinsamlega vid sinn ná-
únga, og innra hafa þeir launsátur. 8. Á eg
ekki ad refsa þeim fyrir slíkt, segir Drottinn,
edur hefnast á slíku fólki, sem þetta er?

9. Yfir fjøllin hef eg grát og harmakvein,
og sorgarljód yfir eydimerkurinnar beitiløund,
því svidin eru þau, og einginn er þar á ferd,
og nú heyrist ei framar raust hjardanna; fugl-
ar himinsins, eins og dýrin, eru flúnir, burt-
farnir. 10. Og eg gjøri Jerúsalem ad stein-
hrúgu, ad dýra bæli; og Júda stadi mun eg
gjøra ad audn, hvar einginn býr.

11. Hvør er nú vitur madur? Hann skyldi
eptir þessu taka, og sá sem munnur Drottins
talar vid, hann skyldi þad kunngjøra. Hvar
fyrir geingur landid til grunna, verdur upp-
svidid sem eydimørkin, svo eingin fer þar um?
12. Drottinn sagdi: af því þeir hafa horfid frá
mínu løgmáli, sem eg setti þeim, og ekki gégnt
minni raust, og ekki breytt þar eptir, 13. held-
ur geingid eptir þverúd síns hjarta og eptir
Baal, eins og fedur þeirra hafa ként þeim,
14. því segir Drottinn herskaranna, Gud Ísra-
els svo: sjá, eg géf þessu fólki malurt ad eta
og galli blandad vatn ad drekka. 15. Og eg
tvístra þeim medal þjódanna, sem þeir ei þekktu,
hvørki þeir né þeirra fedur, og eg sendi sverdid
á eptir þeim, þángad til eg afmái þá.

16. Svo segir Drottinn herskaranna: takid
eptir (þessu) og kallid harmkonur ad þær komi,

V. 9. Beitilandid átist upp af hestum óvinanna. V. 16. Harmkonur etc. Í fornøld voru menn, helst konur leygtar
til, med náúngum, ad gráta vid útfør meiri háttar manna, þeim til heidurs.

og sendid til þeirra vísu kvenna ad þær komi,
17. og sýngi yfir oss, sem fyrst, harmaljód, ad
tár renni oss af augum og vatn fljóti af vor-
um hvørmum, 18. því (þessi) harma tón hljóm-
ar frá Síon: „hvørsu erum vér eydilagdir! vér
erum mjøg til skammar ordnir! því vér hljótum
ad rýma landid, þared þeir hafa nidurbrotid
vora bústadi". 19. Því heyrid, konur, Drott-
ins ord, og ydar eyra nemi ordid hans munns!
kénnid ydar dætrum harmaljód, og hvør kénni
annari sorgarsaung! 20. Því daudinn fer inn
um vora glugga, kémur í vor herbergi, (kémur)
til ad afmá børnin á strætunum, únglíngana á
torgunum. 21. Tala þú! svo segir Drottinn:
líkamir manna skulu liggja sem tadhrúgur á
velli, og eins og røk eptir uppskéru manninn sem
einginn tekur. 22. Svo segir Drottinn: sá vísi
hrósi sér ekki af sinni vitsku, og sá sterki hrósi
sér ekki af sínum styrkleika, sá ríki hrósi sér ekki
af sínum ríkdómi; 23. heldur hrósi sér hvør
af því, sem vill hrósa sér, ad hann þekkir mig
og veit ad eg er Drottinn, sem ydka í landinu
miskunsemi, réttindi og réttvísi; því á slíku hefi
eg velþókknan, segir Drottinn.

24. Sjá, þeir dagar koma, segir Drottinn,
ad eg refsa øllum umskornum med þeim óum-
skornu, 25. Egyptalandi og Júda og Edom og
Ammonssonum og Móab, og þeim sem skéra sér
skégg (arabiska) og búa í eydimørkinni. Því
allar þjódir eru (ad sønnu) óumskornar, en allt
Israels hús hefir óumskorid hjarta.

## 10. Kapítuli.

Dáraskapur sá ad dýrka hjágudi; Jerúsalems eydilegg-
íng, hvorttveggja hér afmálad.

1. Heyrid þad ord, sem Drottinn til ydar
talar, Israelshús. 2. Svo segir Drottinn: ven-
jid ydur ekki á síd þjódanna og verid ei hræddir
vid himinteiknin, þóad þjódirnar hrædist þau.
3. Þvíad sidir þjódannna (hjágudirnir) eru
hégómi. Tré er þad sem menn høggva í
skógi, verk smidsins handar, med øxinni. 4.
Med silfri og gulli prýdir hann þad, med nøgl-
um og med hamri festir hann þad, svo þad detti
ekki. 5. Þau skurdgodin eru rend sívøl sem
pálmavidur og tala ekki; borin eru þau, því
þau kunna ekki ad gánga. Verid ekki hræddir
vid þau, því þau géta ei skadad, og ekki eru
þau þess umkomin ad veita velgjørd. 6. Eing-
inn er þér líkur, Drottinn, mikill ert þú, og
mikid þitt nafn sakir veldisins. 7. Hvør skyldi
ei óttast þig, Konúngur þjódanna? því þú ert
þess maklegur, því medal allra þjódanna spek-
ínga og í øllum þeirra kóngsríkjum er einginn
þér líkur. 8. Og í einu lagi eru þeir óskinsam-
ir og fávísir, einkisverdur lærdómur, tré er þad!
(sem þeir dýrka). 9. Silfurpløtur eru fluttar
frá Tarsis og gull frá Ufas, verk smidsins,
gullsmidsins handa, blár og raudur purpuri er
(hjáguda) þeirra klædnadur, verk hagleiksmanna
eru þeir allir. 10. En Gud Drottinn er sann-
leikurinn, (sannur Gud), hann er lifandi Gud,
og eilífur Kóngur; fyrir hans reidi bifast jørd-
in, og þjódirnar þola ekki hans ógnan.

11. Þetta skulud þér til þeirra segja: þeir
gudir sem ekki hafa gjørt himin og jørd, munu
hverfa af jørdinni og undan himninum. 12.
Hann (Drottinn) gjørdi jørdina med sínum
krapti, tilbjó heiminn med sínum vísdómi og med
sínum skilníngi útþandi hann himininn. 13.
Þegar hann þrumar, er mikid vatn í himnin-
um, og hann dregur ský þarad frá endum jard-
arinnar, eldíngar tilreidir hann til regns, og
tekur vindinn úr sínum hirdslnm. 14. Óskinug-
ur er hvør madur án (þessarar) þekkingar; til
skammar verdur hvør smidur fyrir bílætin, því
tál er hans steypuverk, og einginn andi er í
því. 15. Hégómi eru þau, svikaverk, á tíma

V. 25. Sem skéra sér skegg, adr: sem búa ýtst.

þeirra hegníngar munu þau hverfa. 16. Ekki er ſá líkur þeſsum, ſem vard Jakobs hlutdeild; heldur hefir hann ſkapad allt, og Jsrael er ætt hans eignar, Drottinn herſkaranna er hans nafn.

17. Hafdu ſaman úr landinu þína muni, því þú ert umſetinn! 18. Því ſvo ſegir Drottinn: ſjá, eg vil í þetta ſinn burtkaſta landſins innbúum og þraungva þeim, ſvo þeir finni (þad). 19. „Vei mér, ſakir minnar ólukku! ſárid ſvídur mér! ſamt hugſa eg: gott og vel: þetta er mín þjáníng, ſem eg verd ad bera! 20. mín tjaldbúd er nidurfeld og øll mín tjaldſtøg ſlitin; ſynir mínir eru frá mér geingnir, eru farnir; einginn útþenur aptur mitt tjald, og heingir upp mína (tjald) dúka. 21. Því hirdararnir voru óſkinugir og leitudu ekki Drottins: þeſs vegna gat þeim þad ekki lánaſt, og allri þeirra hjørd var tvíſtrad". 22. Rauſt heyriſt, ſjá, hún kémur, (færiſt nær), og mikid hark úr landinu nordur frá, til ad gjøra Júda ſtadi ad eydimørk, ad úlfabælum.

23. Eg veit, Drottinn, ad mannſins vegur er ei í hans valdi, ekki í valdi ferdamannſins ad (ſtefna) ſtýra ſínum ſporum. 24. Typta þú mig, Drottinn, þó med máta, ekki í þinni reidi, ad þú ekki gjørir útaf vid mig. 25. Hell þinni reidi yfir þær þjódir, ſem ekki þekkja þig, og yfir þær kynkvíſlir ſem ekki ákalla þitt nafn. Því þær hafa uppſvelgt Jakob, uppſvelgt hann og uppetid, og eydilagt hans búſtad.

## 11. Kapítuli.

Prédikun móti yfirtrodſlum løgmálſins. Gydíngar ætla ad drepa Jeremías.

1. Pad ord ſem kom til Jeremías frá Drottni, þá hann mælti: 2. Heyrid ord þeſsa ſáttmála, og talid þau til Júda manna og til Jerúſalems innbúa! 3. og ſeg til þeirra: ſvo ſegir Drottinn, Jsraels Gud: bølvadur (ſé) ſá madur ſem ekki heyrir ord þeſsa ſáttmála, 4. ſem eg baud ydar fedrum, þegar eg flutti þá úr Egyptalandi, úr járnofninum, og ſagdi: hlýdid minni rauſt, og gjørid allt ſem eg mun bjóda ydur, þá ſkulud þér vera mitt fólk, og eg mun vera ydar Gud, 5. ſvo eg efni þann eid, ſem eg ſór ydar fedrum, ad géfa þeim þad land ſem flýtur í mjólk og hunángi, eins og á þeſsum tíma er (ſkéd). Og eg ſvaradi, og ſagdi: já, verdi þad Drottinn. 6. Og Drottinn ſagdi vid mig: úthrópa þú øll þeſsi ord í Júda ſtødum, og í Jerúſalems ſtrætum, og ſeg: heyrid ord þeſsa ſáttmála, og gjørid þar eptir! 7. Því vandlega hefi eg vitnad fyrir fedrum ydar frá þeim døgum, ad eg flutti þá úr Egyptalandi allt til þeſsa dags, frá því ſnemma morguns vitnad og ſagt: hlýdid minni rauſt! 8. En þeir hlýddu ekki, og løgdu ekki vid eyrun, og hvør einn gékk eptir þverúd ſíns vonda hjarta; og ſvo læt eg yfir þá koma øll ord þeſsa ſáttmála, ſem eg baud þeim ad gjøra, og ſem þeir hafa ekki gjørt.

9. Og Drottinn ſagdi vid mig: þad er ſamſæri milli Júdamanna og Jerúſalems innbúa. 10. Þeir hverfa til misgjørda ſinna fedra, forfedranna, ſem tølduſt undan ad hlýda mínum ordum og fóru eptir ødrum gudum, ad þjóna þeim; Jsraels hús og Júda hús hefir rofid minn ſáttmála, ſem eg ſamdi vid þeirra fedur.

11. Því ſegir Drottinn ſvo: ſjá, eg leidi yfir þá ólukku, ſem þeir ſkulu ekki undankomaſt; og þó þeir kalli til mín, ſkal eg ekki heyra þá. 12. Þá géta Júda ſtadir og Jerúſalems innbúar farid og kallad til þeirra guda ſem þeir veifa reykélſi fyrir; en ekki munu þeir hjálpa þeim á þeirra ógjæfu tíma. 13. Því eins margir og þínir ſtadir eru, Júda, ſvo þínir gudir; og ſvo mørg ſem ſtrætin eru í Jerúſalem, ſvo mørg ølturu hafid þér gjørt þeim ſví-

virdilegu (godum),ølturu fyrir Baal, ad gjøra reyk (á þeim).

14. En bid þú (Jeremías) ekki fyrir þessu fólki, ekki skaltu hefja bæn né grátbeidni fyrir þá; því eg heyri ekki þegar þeir til mín kalla søkum sinnar óhamíngju. 15. Til hvørs (skal) mín elskulega (vera) í mínu húsi, svo ad hún adhafist margar misgjørdir? Þad helga kjøt fer þó framhjá þér (gagnslaust); því þegar (þú gjørir) íllt, þá hælist þú um. 16. Grænt vidsmjørstré, fagurt af lystilegum ávøxtum kalladi Drottinn þig. Nú, í hljómi mikils harks, kveikir hann eld í kríngum þad, og þeir brjóta af þess greinir. 17. Drottinn herskaranna, sem þig gródursetti, hefir áliktad óhamíngju yfir þig, søkum íllsku Israels húss og Júda húss, sem þeir adhøfdust, til ad módga mig, þá þeir færdu Baal fórnir.

18. Drottinn gjørdi mér þad kunnugt og eg fékk ad vita þad; í þad sinn sýndir þú mér þeirra verk. 19. En eg var sem heima alid lamb, sem leidt er til slátrunarbekksins, og vissi ekki ad þeir voru ad smída rádagjørdir móti mér, (þ. e. þessar): „Vér skulum eydileggja tréd og þess ávøxt, og uppræta þad úr landi þeirra sem lifa, svo þess nafn verdi ei framar nefnt!“ 20. En Drottinn herskaranna er réttvís dómari sem prófar níru og hjarta. Eg mun sjá þína hefnd á þeim, því þér hefi eg trúad fyrir mínu málefni. 21. Því segir Drottinn svo móti mønnum í Anatot, sem sitja um þitt líf, og segja: spá oss ekki í nafni Drottins, svo þú deyir ekki fyrir vorri hønd. 22. Þess vegna segir Drottinn herskaranna: Sjí! eg mun refsa þeim: æskumennirnir skulu falla fyrir sverdi, þeirra synir og dætur skulu deya af húngri, 23. og ekkért skal af þeim eptir verda; því eg leidi ólukku yfir menn í Anatot, á þeirra heaníngar tíma.

## 12. Kapítuli.

Spámadurinn er offóktur. Drottinn sleppir hendinni af sínu fólki. Hótanir og fyrirheit til nálægra þjóda.

1. Rétt hefir þú fyrir þér, Drottinn, þegar eg fer í mál vid þig, samt verd eg ad sækja søk á móti þér: því er vegur hinna gudlausu lánlegur? því hinir svikulu landrádamenn med øruggu gédi? 2. Þú plantar þá, og þeir festa rætur, vaxa og bera ávøxt. Nálægur ertu þeirra munni, en fjarlægur þeirra hjørtum. 3. En þú, Drottinn, þekkir mig, sjer mig, og prófar mitt hjarta, hvørnig þad er, þér til handa. Skildu þá frá, eins og saudi til slátrunar, og helgadu þá drápsdeginum! 4. Hvørsu leingi skal landid syrgja, og allt vallanna gras uppvisna? Vegna innbúanna vondsku eru fuglar og dýr í burtu hrifin; því þeir segja: hann sjer ekki vor afdrif.

5. „Ef ad þú mædist, þegar þú hleypur med fótgángandi mønnum: hvørnig villtu þá hlaupa til kapps vid hesta? Og þó þú sért øruggur í óhultu landi, hvad muntu gjøra í Jórdans prýdi? 6. Því líka brædur þínir og þíns føđurs hús, þeir eru líka þér ótrúir; þeir kalla og eptir þér med háum róm. Trú þú þeim ekki, þó þeir tali vinsamlega vid þig!“

7. Yfirgéfid hefi eg mitt hús, sleppt minni eign, eg hefi géfid þad, sem minni sál var kjærast, óvinum í hønd. 8. Mín eign er ordin mér, sem ljón í skógi, hún øskrar á móti mér, því hata eg hana. 9. Mín eign er mér villudýr, ólmt villudýr (Hyene); villudýr sækja ad henni allt um kríng. Upp! upp! safnid saman øllum dýrum merkurinnar, komid med þau til ætis! 10. Margir hirdarar eydileggja minn víngard, nidurtroda minn akur; þeir gjøra ad eydimørk minn fallega litla akur. 11. Menn gjøra hann ad audn, sorglegt er um ad litast; allt landid

V. 5. Jórdans prýdi: Plats vid Jórdan yndislegt, en þar sólusi samt hættuleg villudýr.

er eydilagt, medan eingin lét sér þad til hjarta gánga. 12. Eydileggjarar koma yfir allar hædirnar í eydimørkinni; því sverd Drottins eydileggur frá landsíns einum enda til annars; ekkért hold hefir frid. 13. Þeir sádu hveiti, uppskáru þyrna; þeir mædduſt, høfdu eingan ávinníng. Svo verdid þá til skammar fyrir ydar afrakstur, søkum Drottins brennandi reidi.

14. Svo segir Drottinn: móti øllum mínum vondu nábúum, sem gjøra árás á mína eign, er eg gaf mínu fólki Ísrael: Sjá, eg ríf þá úr þeirra landi, og burtkippi Júda húsi midt frá þeim. 15. En þad mun ské, eptir ad eg hefi þeim í burtu rikkt, ad eg skal miskuna þeim, og leida hvørneinn heim aptur til sinnar eignar og hvørn í sitt land. 16. Og þad skal ské, ef þeir læra vegi míns fólks, svo ad þeir sverja vid mitt nafn, „svo sannarlega sem Drottinn lifir"! eins og þeir kéndu mínu fólki ad sverja vid Baal: svo skulu þeir njóta sømu gjæda sem þad, uppbygdir verda medal míns fólks. 17. En ef þeir hlýda ekki, svo upprikki eg slíku fólki, ríf þad burt, og tortíni því, segir Drottinn.

## 13. Kapítuli.

Herleidíng Júdanna.

1. Svo sagdi Drottinn vid mig: far og kaup þér línbelti, og legg þad um þínar lendar, en láttu þad ekki koma í vatn. 2. Og eg keypti beltid eptir ordi Drottins, og lagdi um mínar lendar. 3. Og ord Drottins kom til mín í annad sinn og mælti: 4. taktu beltid sem þú keyptir, sem er um þínar lendar, og taktu þig til, og far til Frat, og fel þad þar í bjargskoru. 5. Og eg fór og fól þad hjá Frat eins og Drottinn hafdi mér bodid. 6. Og eptir marga daga lidna sagdi Drottinn vid mig: tak þig nú til og gakk til Frat, og taktu þar beltid, sem eg baud þér ad fela þar. 7. Og eg gékk til Frat, og gróf upp, og tók beltid úr þeim stad, hvar eg hafdi falid þad; og sjá, beltid var skémt, til einkis nýtt. 8. Og ord Drottins kom til mín og sagdi: 9. svo segir Drottinn: svona mun eg skémma Júda ágjæti, og Jerúsalems ágjæti hid mikla. 10. Þetta vonda fólk, sem ekki vill hlýdnast mínum ordum, sem geingur eptir þverúd síns hjarta og adhyllist adra gudi, til ad þjóna þeim og tilbidja þá, þad skal verda sem þetta belti, sem til einkis er nýtt. 11. Því eins og ad beltid heldur sig ad mannsíns lendum, svo héldt eg ad mér øllu Ísraelshúsi og ellu Júda húsi, segir Drottinn, ad þad skyldi vera mitt fólk og mér til nafns, lofs og heidurs; en þeir hlýddu ekki.

12. Og seg þeim þetta ord: svo segir Drottinn Ísraels Gud: hvør ein flaska er fyllt med víni. En þeir munu segja vid þig: vitum vér þad þá ekki, ad allar fløskur eru fylltar med víni? 13. Þá skaltu segja vid þá: eg fylli alla innbúa þessa lands, Kóngana, sem í Davíds hásæti sitja, og prestana og spámennina og alla Jerúsalems innbúa, svo þeir verdi drukknir. 14. Og eg slæ þá sundur hvørn vid annan, fedur og syni í einu lagi, segir Drottinn; eg hefi einga vægd, og einga medlídun og einga miskun, ad eg ei tortíni þeim.

15. Heyrid og takid eptir! verid ekki drambsátir! því Drottinn talar. 16. Géfid Drottni, ydar Gudi, heidurinn, ádurenn hann lætur dimma, ádurenn ydar fætur reka sig á røkkursins fjøll, og í því þér erud ad vænta ljóss, ad hann breitir því í daudans nótt og gjørir þad ad myrkri. 17. Og ef þér heyrid ekki, þá mun eg í leyni gráta yfir ydar drambsemi, eg mun tárast og tár munu renna mér af augum, af því hjørd Drottins verdur hertekin burtu flutt.

18. Seg þú Kóngi og drottníngu: setjid ydur lágt, því af ydar høfdum er ydar dýrd-

lega kóróna fallin. 19. Borgirnar suður frá eru læstar, og einginn opnar þær; Júda lýður allur burt fluttur, gjörsamlega burt fluttur. 20. Lít upp augunum, og sjá þá sem koma norðan að! hvar er sú hjörð sem þér var feingin, þín fallega hjörð? 21. Hvað munt þú segja þegar hann kémur að finna þig, þareð þú hændir þá að þér, sem höfðingja og herra? munu ekki hviður að þér koma, eins og að jóðsjúkri konu? 22. Og ef þú segir í þínu hjarta: „hví mætir mér þetta"? (er svarið) sakir fjölda misgjörða er þínum klæðafaldi uppflett og þínir hælar með valdi berir gjörðir.

23. Getur blámaðurinn breytt sínum hörundslit, og Pardus dýrið sínum flekkjum? þá gjætuð þér og gjört gott, þér sem vanist hafið því, að gjöra illt. 24. En eg vil tvístra þeim sem stráum, er fyrir vindi berast úr eyðimörkinni. 25. Þetta skal þitt hlutfall, þín laun af minni hendi, segir Drottinn, af því þú gleymdir mér, og reiddir þig á lygina (hjáguðina). 26. Eg skal líka kippa faldi klæða þinna uppyfir þitt andlit, að þín blygðan sjáist. 27. Þinn hórdóm, og þitt losæði, og svívirðilega losta á hæðunum, á völlunum, þína viðurstygð, þetta hefi eg séð. Vei þér, Jerúsalem, þú getur ekki hrein orðið, eptir (eg veit ei) hvað lángan tíma!

## 14. Kapítuli.

Ræða haldin í þurki.

1. Þetta var orð Drottins til Jeremías, viðvíkjandi regnleysi. 2. Júda land kveinar og þess staðir örmagnast, og liggja syrgjandi á jörðu; og Jerúsalems óp stígur upp í hæðina. 3. Og þeir göfugri meðal þeirra senda þá óæðri eptir vatni, þeir koma að brunnum, finna ekkert vatn, þeir fara tilbaka með tóm ílát, sneyptir og órólegir hylja þeir sín höfuð. 4. Vegna þess jörðin er sprúngin, af því regn kémur ekki á jörðina, eru akuryrkju mennirnir niðurlútir og hylja sitt höfuð. 5. Já, jafnvel hindurnar á landinu bera, og yfirgefa (kálfana) því ekkert gras vex. 6. Og villiasnar standa á hæðunum, og taka öndina á lopti eins og úlfabræður, og örmagnast, því eingin er þar jurtin.

7. Þó að vorar misgjörðir vitni móti oss, þá breyttu, Drottinn, fyrir þíns nafns sakir (náðarsamlega); vor ótrygð er mikil, móti þér höfum vér syndgað. 8. Þú Ísraels von, hans frelsari á neyðarinnar tíma! Því viltu vera sem útlendíngur í landinu, og sem ferðamaður er tjaldar til einnar nætur? 9. Því viltu vera sem sinnulaus maður, sem sá voldugi, er ei getur hjálpað? Og þó ertu, Drottinn, mitt á meðal vor, og eptir þínu nafni erum vér nefndir: yfirgef oss ekki!

10. Svo segir Drottinn til þessa fólks: þeir hlaupa þá í ýmsar áttir, þeir ráða ekki við sína fætur. Því hefir Drottinn einga velþóknan á þeim, nú minnist hann þeirra misgjörða og ætlar að finna þá fyrir þeirra syndir.

11. Og Drottinn sagði við mig: þú skalt ekki biðja fyrir þetta fólk því til góðs. 12. Þó þeir fasti, heyri eg ekki þeirra grátbeiðni, og þó þeir framberi brennifórn og matoffur, svo geðjast mér ei að því, heldur vil eg afmá þá, með sverði, húngri og drepsótt. 13. Og eg sagði: æ Herra, Drottinn! sjá! spámennirnir segja við þá: þér munuð ekkert sverð sjá, og húngur mun ei til yðar koma, heldur mun eg gefa yður stöðugann frið á þessum stað. 14. Og Drottinn mælti til mín: Spámennirnir spá lygum í mínu nafni, eg hefi þá ekki sendt, né skipað þeim, né við þá talað; þeir prédika fyrir yður lygasjónir, kýngi, hégóma og tál sinna hjartna. 15. Því segir Drottinn svo: spámennirnir sem spá í mínu nafni, þó eg hafi ekki sendt þá, og segja: sverð og húngur mun

ei í þetta land koma: fyrir sverdi og húngri
skulu þeir sømu spámenn farast. 16. Og þad
fólk, sem þeir prédika fyrir, skal á Jerúsalems
strætum liggja, fallid fyrir sverdi og húngri,
og eingin skal þá jarda, þeir, þeirra konur,
þeirra synir og þeirra dætur; og svo steypi eg
yfir þá þeirra vondsku (launum). 17. Og seg
þeim þetta ord: mín augu fljóta í tárum dag
og nótt og þau (tárin) stansa ekki; því miklu
sári er meyan særd, dóttir míns fólks, mikid
tilfinnanlegum høggum (sleigin). 18. Þegar
eg geing útá vellina, sjá! þar eru þeir med
sverdi felldu, og þegar eg kém inní stadinn,
sjá! þar eru þeir af húngri ørmøgnudu; því
bædi spámenn og prestar ráfa um landid og
vita ei (rád). 19. Hefir þú þá útskúfad Júda
(landi)? ertu ordinn leidur á Síon? Hvørs
vegna hefir þú slegid oss svo, ad vér verdum
ei læknadir? Vér væntum (fridar) og þá fæst
ekkért gott, og lækníngartíma, og sjá! þar er
skélfíng. 20. Vér þekkjum, Drottinn, vort
ránglæti, sekt vorra fedra; því vér høfum móti
þér syndgad. 21. Forsmá ekki, sakir þíns
nafns, óvird ekki tignarsæti þinnar dýrdar;
mundu til, rjúf ei þinn sáttmála vid oss! 22.
Géfast þeir medal hjáguda þjódanna sem regn
géfi? Eda gétur himinin sendt skúrir? Ert
þú þad ekki, Drottinn, vor Gud? Á þig von-
um vér, því þú hefir allt þetta gjørt.

## 15. Kapítuli.

Sama ræda.

1. Og Drottinn sagdi til mín: þó ad Mó-
ses og Samúel geingju fram fyrir mig, mundi
mitt hjarta ekki hneigjast ad þessu fólki. Rek
þá frá minni augsýn, ad þeir burtfari! 2. Og
ef þeir segja vid þig: hvørt eigum vér ad
fara? svo seg þú vid þá: svo segir Drottinn:
hvør til dauda (ætladur), til dauda; og hvør
til sverds, til sverds; og hvør til húngurs, til
húngurs; og hvør til fángélsis, til fángélsis.
3. Eg sendi yfir þá 4ar (refsíngar) tegundir, seg-
ir Drottinn: sverdid til dráps, hundana, sem þá
skulu slíta, og fugla himinsins, og dýr lands-
ins til ad eta þá og afmá. 4. Og eg læt
øll Kóngsríki jardarinnar misþirma þeim, søk-
um Manasses, sonar Esekía, Júda Kóngs,
fyrir þad sem hann adhafdist í Jerúsalem.

5. Því hvør gétur aumkvast yfir þig, Jerú-
salem, og hvør medlídun haft, hvør geingid
nær til ad spyrja þig, hvørnig þér lídi? 6.
Þú hefir yfirgéfid mig, segir Drottinn, ert
frá mér horfin: og svo útrétti eg mína hønd á
móti þér, og vinn þér tjón: eg er þreittur
ordinn á ad miskuna. 7. Og eg kasta þeim
med skóflu í landsins borgarhlidum, drep únga
fólkid, afmái mitt fólk, sem ekki snýr sér frá
sínum vegum. 8. Fleiri skulu þeirra ekkjur
verda enn sand (korn) vid sjó; eg leidi yfir mædur
únglínganna hjá þeim eydileggjara um middeg-
id; eg læt sviplega yfir þá falla ángist og skélf-
íngu. 9. Sú sem alid hefir 7 børn, hún syrg-
ir, hún andast, hennar sól geingur undir, ád-
urenn dagur er á enda; hún sneypist og fyrir-
verdur sig. Og þad sem eptir er af þeim, géf
eg sverdi þeirra óvina, segir Drottinn.

10. „Æ mig aumann, módir mín, ad þú fædd-
ir mig, sem allir deila og þrátta vid í landinu.
Ekkért hefi eg ødrum lánad og ekkért hafa menn
mér lánad; þó formæla þeir mér allir“. 11.
Drottinn sagdi: já, ef eg ekki leysi þig til góds,
(frelsa þig) og læt óvin þinn, á neydarinnar
tíma, og þreyngíngarinnar tíma, grátbæna þig!
12. Gétur madur líka brotid járnid, járnid
nordanad, og eirid? 13. Þínar eigur og þinn
aud géf eg ad herfángi ómælt, og þad sakir
þinna synda í øllum þínum landamerkjum, 14.
og flyt þetta med þínum óvinum, í þad land,
sem þú ekki þekkir, því eldur blossar í minni
reidi, yfir ydur brennur hann.

15. Þú veitst (allt) Drottinn, minnstu mín, og lít á mig, og hefn mín á mínum ofsóknarmønnum! tak mig ekki burt, í því þú frestar þinni reidi; kannastu vid það, ad eg líd smán þín vegna. 16. Rædu þín ord til mín, tók eg vid þeim med grædgi, þín ord voru mér unan og føgnudur míns hjarta; því eg er nefndur eptir þínu nafni, Drottinn, Gud herskaranna! 17. Eg sat ekki í hóp þeirra sem hlóu og var gladur; vegna a) þinnar handar, sat eg útaf fyrir mig, og þú fylltir mig med þúnglyndi. 18. Hví skal mín þjáníng vera ævarandi, og mitt sár banvænt? það vill ei gróa. Þú ert mér sem tælandi lind, eins og vatn, sem ad bregdst.

19. Því segir Drottinn svo: ef þú hverfur aptur, (frá óþolinu), þá skal eg leida þig til baka; fyrir mér skaltu standa, (vera minn spámadur), og ef þú adskilur hid dýra frá enu laklega, þá skaltu vera minn munnur. Þeir skulu til þín snúa sér, en snú þú þér ekki til þeirra. 20. Og eg gjøri þig þessu fólki ad føstum eir vegg, ad þeir strídi vid þig og yfirbugi þig ekki; því eg er med þér, til ad hjálpa þér, og frelsa þig, segir Drottinn. 21. Og eg frelsa þig af hendi þeirra vondu, og losa þig úr hnefum ofbeldismannanna.

## 16. Kapítuli.

Hótanir og fyrirheit.

1. Og Drottins ord kom til mín, og sagdi: 2. þú skalt þér einga konu taka, og einga sonu né dætur hafa á þessum stad. 3. Því svo segir Drottinn um þá syni og dætur sem fædast á þessum stad, og um þeirra mædur sem fæda børn, og um fedurna, sem afla þeirra, í þessu landi: 4. af banvænum sjúkdómi skulu þeir deya; ekki harmadir, ekki grafnir, skulu þeir verda ad áburdi landsins, fyrir sverdi og húngri skulu þeir farast, og þeirra líkamir skulu verda ad æti, himinsins fuglum, og merkurinnar dýrum. 5. Því svo segir Drottinn: þú skalt ekki gánga í sorgarhúsid, og far hvørgi til ad kveina, og kénndu ei í brjósti um þá, því eg hefi tekid minn frid (farsæld) frá þessu fólki, náð og miskun, segir Drottinn. 6. Og stórir og smáir munu deya í þessu landi, þeir verda ei jardadir, ekki harmadir, sakir þeirra rispa menn sig hvørki né hárreita; 7. og ekki færa menn þeim (mat) sem eru í sorg, til þess ad hugga þá, eptir þá dánu, og ekki géfa menn þeim huggunarbikar eptir fødur og módur (lát). 8. En gakk ei heldur í veitslu húsid, til ad sitja hjá þeim, til ad eta og drekka.

9. Því svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud: sjá! eg gjøri endir á þessum stad, og á medan þér lifid, á gledinnar raust og gladværdar raust, og á brúdgumans raust og brúdurinnar raust. 10. Og þegar þú kunngjørir slíkt þessu fólki, og þeir segja vid þig: hví talar Drottinn alla þessa miklu ógjæfu móti oss, og hvør er vor misgjørd, og hvør vor synd, sem vér høfum syndgad móti Drottni vorum Gudi? 11. Þá seg til þeirra: vegna þess ad ydar fedur yfirgáfu mig, segir Drottinn, og eltu adra gudi, og þjónudu þeim, og tilbádu þá, og yfirgáfu mig, og hlýddu ekki mínu løgmáli; 12. og þér breitid enn verr enn ydar fedur, og sjá! hvør og einn ydar lifir eptir þverúd síns vonda hjarta, og þér heyrid mér ekki. 13. Svo kasta eg ydur burt úr landinu, inní land sem þér ekki þekkid, hvørki þér né ydar fedur, og þar gétid þér þjónad ødrum gudum dag og nótt, þared eg einga miskun vil ydur veita.

14. Sjá! þar fyrir, dagar koma, segir Drottinn, þá madur mun ekki framar segja: „svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem flutti

V. 17. a. Af því Drottinn hafdi valid honum svo alvarlega køllun.

Ísraelssyni úr Egyptalandi", 15. heldur:
svo sannarlega sem Drottinn lifir, sem flytur
Ísraelssyni úr landinu nordurfrá, og úr øllum
þeim løndum, hvørt hann hrakti þá", og eg
flyt þá tilbaka í þeirra land, sem eg gaf þeirra
fedrum. 16. Sjá! eg mun senda marga fiski-
menn, segir Drottinn, þeir skulu fiska þá; og
eptir þad mun eg senda marga veidimenn, sem
skulu reka þá af sérhvørju fjalli, og af sér-
hvørri hæd, og úr bjargskorunum. 17. Því
mín augu horfa á alla þeirra vegu, þeir eru ei
huldir fyrir mér, og þeirra misgjørd felst ei
fyrir mínum augum. 18. Fyrst mun eg launa
þeirra a) tvøføldu misgjørd og synd, af því
þeir vanhelgudu mitt land, og uppfylltu mína
eign med líkum sinna vidbjódslegu goda, og
vidurstygd.

19. „Drottinn, minn styrkur og festa, og
athvarf á neydarinnar tíd! til þín munu þjód-
ir koma frá enda jardarinnar, og segja: lyg-
ar b) einar hafa vorir fedur látid oss fá í arf,
hégóma, eingin hjálp er hjá þeim. 20. A
madurinn ad gjørà sér gudi, sem þó ekki eru
gudir"? 21. Sjá! þar fyrir, gjøri eg þeim
nú kunna, já, eg gjøri þeim kunna mína hønd
og mitt veldi, svo þeir vidurkénni, ad mitt
nafn (er) Drottinn.

## 17. Kapítuli.

Sama efni, og um hvíldardagsins vanhelgun.

1. Júda synd er skrifud med járnstíl og ydd-
um demanti; inngrafin á spjøld þeirra hjarta,
og á þeirra altarishorn. 2. Svo ad synirnir
muni til þeirra altara, og lundanna hjá þeim
grænu trjám, og á þeim háu hædum. 3. O,
mitt fjall á vellinum! þitt góts og alla fjár-
sjódu þína, géf eg til herfángs, þínar hædir,
søkum syndanna innan allra þinna landamerk-
ja. 4. Og þú verdur ad missa þína eign,
sem eg hefi géfid þér, og þad fyrir þína egin
sekt; og eg læt þig þjóna þínum óvin í því
landi sem þú ekki þekkir; því eld hafid þér
tendrad í minni reidi, hann bálast eilíflega.

5. Svo segir Drottinn: bølvadur sé sá mad-
ur sem treystir mønnum, og gjørir holdid (daud-
lega) ad sinni stod, og sá hvørs hjarta víkur
frá Drottni! 6. Hann er sem sá nakti í ó-
bygdinni, og sjer ekki, ad þad góda kémur;
hann býr, á þurrlendi í eydimørkinni, á salt-
lendi, óbygdu. 7, Blessadur sé sá madur sem
treystir Drottni, og sá hvørs athvarf Drott-
inn er! 8. Hann er sem tré, gródursett vid
vatn: útad vatnsrenslinu þenur þad (hann)
sínar rætur, og hrædist ekki þótt hitinn komi,
og þess (hans), blød eru græn, og á þurkár-
unum skélkast þad (hann) ekki, og lætur ei af
ad bera ávøxt.

9. Svikult er hjartad, fremur øllu (ødru)
og spillt er þad: Hvør gétur þad þekkt? 10.
Eg Drottinn, ransaka hjartad, prófa nírun, og
einmidt til ad géfa hvørjum einum eptir hans
breitni, eptir ávextum hans verka.

11. Hvør sem aflar auds og þad ráugfeing-
ins, er eins og akurhæna (rjúpa) sem liggur á
eggjum er hún ekki lagdi (fæddi): midt á æfi
sinni hlýtur hann ad yfirgéfa audinn, og á
endanum er hann bári.

12. Hásæti dýrdarinnar, hátignarinnar frá
upphafi, er stadur vors helgidóms. 13. Ísra-
els von er Drottinn; allir sem þig yfirgéfa,
verda til skammar. Þeir sem mig yfirgéfa,
þeir sem frá mér víkja, (segir Drottinn), þeirra
nøfn verda í duptid skrifud; því yfirgéfid hafa
þeir lind ens lifanda vatns, Drottinn. 14.
„Lækna mig, Drottinn! ad eg verdi heill; hjálpa
mér, þá er mér hólpid, því þú ert minn lofs-

V. 18. *a.* Adr: tvøfaldlega launa. V. 19. *b.* Falska Gudi. V. 2. Adr: þeir muna til altaranna og lundanna, sem til sona sinna.

týr. 15. Sjá! þeir segja vid mig: Hvar er
Drottins ord? komi þad þá! 16. Eg hefi
ekki skotid mér undan ad vera hirdir eptir þér,
og ógjæfunnar dags hefi eg ekki óskad, þad
veitst þú; þad sem framgeingid hefir af mín-
um vørum, er opinbert fyrir þínu augliti. 17.
Vertu mér ekki skélfíng, þú mitt athvarf, á ó-
gjæfunnar degi! 18. Lát mína ofsóknarmenn
verda til skammar, en láttu mig ekki verda til
skammar, láttu þá verda skélkada, en mig ekki!
leid yfir þá slísa dag og tortín þeim tvøfaldlega.
19. Svo sagdi Drottinn vid mig: far og
gakk í borgarhlid fólksins sona, um hvørt
Júda Konúngar inngánga og hvarum þeir út
gánga, og í øll Jerúsalemshlid, 20. og seg
til þeirra: heyrid ord Drottins, þér Júda Kóng-
ar, og allur Júda (lýdur) og allir Jerúsalems
innbúar, sem um hlidid gángid! 21. Svo seg-
ir Drottinn: gjætid ydar søkum ydar lífs, og
berid eingar byrdar á hvíldardegi og komid ekki
med þær í Jerúsalems hlid. 22. Og berid eingar
byrdar úr ydar húsum á hvíldardegi, og vinn-
id einga vinnu; heldur helgid hvíldardaginn eins
og eg hefi bodid ydar fedrum. 23. En þeir
hlýddu ekki og løgdu ekki vid eyrun, og voru
þverbrotnir, svo þeir hlýddu ekki, og tóku ekki
umvøndun. 24. En ef þér hlýdid, segir Drott-
inn, svo ad þér berid einga byrdi í Jerúsalems-
hlid á hvíldardegi, og helgid hvíldardaginn, svo
ad þér vinnid einga vinnu á honum. 25. Þá
skulu um þetta hlid inngánga Kóngar og fyr-
irlidar, sem sitja í Davíds hásæti, á vøgnum
og hestum, þeir og þeirra fyrirlidar, Júdamenn,
og Jerúsalems innbúar; og þessi stadur skal
eilíflega bygdur vera. 26. Og frá landinu í
kríngum Jerúsalem munu koma, og úr Benja-
míns landi og af láglendinu og frá fjøllunum
og sunnanad, þeir sem koma med brennifórn
og sláturfórn og matoffur og reykelsi og þakk-
arfórn í Drottins hús. 27. En ef þér gégn-
id mér ekki, ad helga hvíldardaginn og einga
byrdi ad bera í gégnum Jerúsalems hlid á hvíld-
ardegi: svo mun eg eld kveikja í hlidi stadar-
ins, sem eydileggi Jerúsalems hallir, og slokkni
ekki.

## 18. Kapítuli.

*Eptirlíkíng tekin af pottasmid og potti.*

1. (Þetta er) þad ord, sem frá Drottni
kom til Jeremías, þá hann mælti: 2. Tak
þig til og gakk í hús leirpottasmidsins, og þar
mun eg kunngjøra þér mín ord. 3. Og eg
gékk í hús leirpottasmidsins, og sjá! hann vann
ad verki sínu á hjólinu (pløtunni). 4. Og í-
látid mistókst sem hann tilbjó úr leirnum, þá
gjørdi hann aptur úr því annad ílát, eins og
leirpottasmidnum leitst ad gjøra.
5. Þá kom ord Drottins til mín og sagdi:
6. Mundi eg ei géta, Ísraels hús, farid eins
og þessi pottasmidur med ydur, segir Drottinn:
Sjá! eins og leir í hendi leirpottasmidsins, svo
erud þér í minni hendi, Ísraels hús! 7. Eitt-
sinn tala eg um þjód og um Kóngsríki, er
eg ætla mér ad uppræta og sundurmola og
eyda. 8. En snúi þad hid sama fólk sér frá
sinni vondsku, um hvørt eg hefi talad, svo ydr-
ast eg þess illa, sem eg hefi ætlad því ad gjøra.
9. Og í annad sinn tala eg um fólk og Kóngsríki
sem eg ætla mér ad uppbyggja og gródurset-
ja. 10. En ef þad gjørir, þad sem íllt er
fyrir mínum augum, svo þad hlýdir ekki minni
raust, þá ydrast eg þess góda, sem eg hugdi
því ad gjøra.
11. Og seg þá nú Júdamønnum og Jerú-
salems innbúum þetta: svo segir Drottinn: sjá!
eg tilreidi ydur ógjæfu, og hugsa upp ráda-
gjørd ydur á móti: snúid þó vid, sérhvør yd-
ar, frá sínum vondu vegum, og leidréttid ydar
vegu og ydar verk! 12. En þeir segja: þad
er frá! því vér viljum fara eptir vorri hugs-

an, og hvør og einn breita eptir þverúd síns
vonda hjarta.
13. Því segir Drottinn svo: spyrjid medal
þjódanna, hvør slíkt hafi heyrt? Ottalegt hefir
Israels mey (Israels þjód) adhafst! 14. Fer
snjórinn frá Líbanon úr klettum minna afrétta?
sígur (í jørdina) þad adkomna, rennandi, buldr-
andi vatn? 15. En mitt a) fólk gleymir mér,
gjørir reik fyrir eingu, (hjágudunum); og þeir
hafa rekid sig á, á sínum vegum, á þeim fornu
gøtum, svo ad þeir gánga á óløgdum vegum,
16. ad þeir gjøra landid ad vidbjód, ad eilífri
skømm, svo ad hvørjum ofbýdur sem fram hjá
fer, og hann hristir høfudid. 17. Sem austan-
vindur mun eg tvístra þeim fyrir óvinunum;
med bakinu og ekki med andlitinu mun eg til
þeirra líta á þeirra ófara degi. 18. En þeir
segja: komid, og tøkum saman vor rád móti
Jeremías, því prestunum skjátlar ekki í løgmál-
inu, og þeim vísu bregdst ekki ráddeildin, né
spámønnunum Guds ord. Komid, látum oss
sálga honum med túngunni og eingan gaum
géfa hans tali!
19. „Géf þú, Drottinn! gjætur ad mér, og
hlusta á raust minna mótstødu manna! 20. A
þá ad launa gott med íllu, ad þeir grafa grøf
mínu lífi? minnstu þess hvørnig eg hefi stad-
id frammi fyrir þér, til ad tala þeirra hid
besta, til ad snúa frá þeim þinni grimd! 21.
Framsel því þeirra syni húngrinu og afhend
þá sverdinu, ad þeirra konur verdi barnlausar
og ekkjur, og þeirra menn farist af drepsótt,
þeirra æskumenn falli fyrir sverdi í strídinu!
22. Harmakvein heyrist úr þeirra húsum,
þegar þú leidir skyndilega herflokka yfir þá;
því þeir hafa grafid grøf, til ad veida mig í,
og lagt snøru fyrir mína fætur. 23. Já,
þú Drottinn, veitst allar þeirra rádagjørdir
móti mér og fjørrád; fel ekki þeirra sekt, og
þeirra synd slokkni ekki frammi fyrir þér; láttu
þá nidursteypast fyrir þínu augliti; breittu
(þannig) vid þá á degi þinnar reidi.

## 19. Kapítuli.

*Samlíking tekin af brotnum brúsa.*

1. Svo sagdi Drottinn: far og kaup brúsa
af leirpotta smidnum, og (tak med þér nokkra)
af øldúngum fólksins og af enum eldstu prest-
um; 2. og gakk útí dal Hinnoms sona, sem
liggur framundan leirsmids hlidinu, og úthrópa
þar þau ord sem eg mun segja þér, 3. og
seg: heyrid ord Drottins, þér Júda Kóngar,
og Jerúsalems innbúar! svo segir Drottinn
herskaranna, Israels Gud: sjá! eg leidi þá
ógjæfu yfir þenna stad, ad hvørjum sem þad
heyrir, skulu eyrun gjalla: 4. af því ad þeir
yfirgáfu mig, og gjørdu þennan stad útlend-
ann, og færdu á honum fórnir ødrum gudum,
sem þeir ekki þekktu, hvørki þeir né fedur þeirra,
né heldur Júda Konúngar, og uppfylltu þenn-
ann stad med saklausu blódi, 5. og byggdu
Baal hædir, til ad brenna sín børn med eldi,
sem brennifórn handa Baal, sem eg hefi ekki
bodid, né talad, né mér hefir til hugar komid;
6. sjá! vegna þessa koma dagar, segir Drott-
inn, þá þessi stadur mun ei framar heita Tó-
fet, né Hinnoms sona dalur, heldur dráps dal-
ur; 7. og eg ónýti Júda og Jerúsalems rád
á þessum stad, og læt þá falla fyrir sverdi
sinna óvina, og fyrir þeirra hendi sem sækjast
eptir þeirra lífi, og géf þeirra líkami æti fugl-
um himinsins og dýrum landsins. 8. Og
eg gjøri þennan stad ad vidbjód og hádúng;
hvør sem fram hjá geingur mun kénna vid-
bjóds, og hædast ad þeirra plágum. 9. Og
eg læt þá eta kjøt sinna sona og sinna dætra,
og hvør skal eta annann, í þreingíngu þeirri

V. 15. *a.* Þad hefir þá minni stadfestu enn snjór og vatn.

og neyd, hvar med þeirra óvinir, og þeir, sem
sækjast eptir þeirra lífi, ad þeim þrísta.
10. Og brjóttu brúsan fyrir augum þeirra
manna, sem med þér geingu, 11. og seg vid
þá: svo segir Drottinn herskaranna: eins mun
eg þetta fólk sundurbrjóta og þennan stad, sem
menn brjóta leir ílát, sem ekki verdur aptur
gjørt jafngott. Og í Tófet munu menn jarda,
því ekkert pláts er til ad jarda í. 12. Þann-
ig mun eg fara med þennann stad, segir Drott-
inn, og hans innbúa, svo eg gjøri þennann
stad jafnan Tófet. 13. Og Jerúsalems hús,
og Júda Kónga hús, skulu verda óhrein, sem
stadurinn Tófet, øll þau hús á hvørra þøkum
menn hafa gjørt reyk øllum himinsíns her og
dreypiforn offrad ødrum gudum.
14. Og Jeremías kom frá Tófet, hvørt
Drottinn hafdi sendt hann, til ad spá, og gékk
í forgard Guds húss, og sagdi vid allt fólkid:
15. Svo segir Drottinn herskaranna, Israels
Gud: sjá! eg leidi yfir þennann stad og yfir
alla hans stadi, alla þá óhamíngju sem eg hefi
þeim vidvíkjandi talad um; því þeir eru hard-
svíradir, svo ad þeir hlýdnast ekki mínum ordum.

## 20. Kapítuli.

*Jeremías er settur í fángélsi af Pashúr presti.*

1. Og sem Pashúr prestur, sonur Immers
prests, (en hann var yfirumsjónarmadur í Drott-
ins húsi) heyrdi Jeremías spá þessum ordum:
2. Þá sló hann Jeremías spámann, og setti
hann í fángélsi, sem var í því háa Benjamíns
porti í Drottins húsi. 3. En á ødrum degi
lét Pashúr Jeremías lausann úr fángélsinu.
Þá mælti Jeremías til hans: Ekki nefnir
Drottinn þig Pashúr, (frelsi allt um kríng)
heldur Magor Missabib (ótta allt um kríng).
4. Því svo segir Drottinn: sjá! eg framsel
þig óttanum, þig og alla þína vini, og þeir
skulu falla fyrir sverdi óvinanna og þín augu
skulu þad sjá, og allt Júda fólk géf eg í hønd
Kóngsins af Babel, ad hann flytji þá (þad)
til Babel og vinni á þeim med sverdi. 5. Og
eg géf allann aud þessa stadar, og øll hans
faung, og alla þeirra dýrgripi, og alla fjár-
sjódu Júda Konúnga í hønd þeirra óvinum,
ad þeir ræni þá og rupli og flytji til Babel.
6. Og þú, Pashúr! og allir sem eru í þínu
húsi, munt verda hertekinn, og fluttur til Bab-
el, og þar muntu deya, og þar verda grafinn,
þú og þínir vinir, sem þú hefir spád ljúgandi
(predikad lýgi).
7. „Drottinn! þú hefir yfirtalad mig, og
eg lét mig yfirtala; þú hefir ordid mér ofvold-
ugur og unnid! en eg verd daglega ad athlæi;
hvør madur dárar mig. 8. Því svo opt sem
eg tala, verd eg ad hefja harmakløgun, boda
ofbeldi og tjón; því Drottins ord verdur mér
daglega ad fyrirlitníng og athlátri. 9. Og ef
eg hugsadi: eg skal ei framar hans (Drottins)
géta, og ekki framar tala í hans nafni: svo
var sem eldur brinni í mínu hjarta, innlæstur
í mín bein; og eg þreyttist ad þola þad, og
gat þad ei leingur. 10. Því eg heyri last-
mæli margra, skélfíngar allt um kríng: „klag-
id hann (segja þeir), vér skulum klaga hann!"
Allir mínir vinir, sem standa mér til hlidar
(segja): „líklega lætur hann sig afvega leida,
ad vér verdum honum yfirsterkari, og gétum
hefnst á honum." 11. En Drottinn stendur
hjá mér eins og geigvænleg hetja: því munu
mínir offóknarmenn steypast og eingu áorka;
møjg meiga þeir skammast sín, ad þeim hefir
ekki tekist; eilíf skømm er þad, sem ekki mun
gleymast. 12. Því Drottinn herskaranna próf-
ar þá réttlátu, sjer níru og hjarta; eg mun sjí
þína hefnd á þeim, því þér hefi eg trúad fyr-
ir mínu málefni. 13. Sýngid Drottni, lofid
Drottinn! því hann frelsar sál þess sem þjáist
af hendi vondskunnar!" 14. „Bølvadur (sé)

sá dagur, á hvørjum eg fæddist; sá dagur, á
hvørjum mín módir ól mig, sé ekki blessadur!
15. Bølvadur sá madur, sem færdi fødur mín-
um bodskapinn og mælti: sonur er þér fædd-
ur; hann gladdi hann mikid. 16. Sá hinn
sami madur, sé líkur þeim stødum sem Drott-
inn kollkastadi og ydradist ei eptir; hann heyri
harmakvein á morgnana og óp um middegid.
17. Af því hann deyddi mig ekki í móðurlísi,
svo módir mín hefdi ordid mín grøf og henn-
ar líf hefdi eilíflega verid þúngad. 18. Því
kom eg þó af móðurlífi til ad sjá ógjæfu og
eymd, og til þess ad mínir dagar eyddust í
skømm?"

## 21. Kapítuli.

Stadurinn unninn.

1. Pad ord sem kom til Jeremías frá Drottni,
þegar Kóngur Sedekia, sendi Pashúr, Malkia
son, og Sefania, Maeseia son, prestinn, til hans,
og mælti: 2. Spyr þó Drottinn fyrir oss; því
Nebúkadnesar, Babels Kóngur, strídir vid oss:
líklega gjørir Drottinn vid oss eptir øllum sín-
um dásemdum, svo ad hann (Nebúkadnesar)
hverfi frá oss.

3. Pá sagdi Jeremías til þeirra: segid svo
Sedekía: 4. svo segir Drottinn, Israels Gud:
sjá, eg sný vid strídsvopnunum í ydar høndum,
med hvørjum þér berjist vid Kónginn af Babel
og mót Kaldeumønnum, sem umsitja ydur,
fyrir utan múrana, og flyt þá saman inní þenn-
ann stad, 5. og eg strídi á móti ydur med útréttri
hønd og øflugum armi, og med reidi og glód
og mikilli grimd. 6. Og eg slæ í hel innbúa
þessa stadar, menn og fénad; af mikilli drepsótt
skulu þeir deya. 7. Og þareptir mun eg géfa
Sedekía Júda Kóng, og hans þjóna, og fólkid,
og þá, í þessum stad eptirordnu, eptir drepsótt-
ina, sverdid og húngrid, í hønd Nebúkadnesars,
Kóngs í Babel, og í hønd þeirra óvina, og í
hønd þeirra, sem sækjast eptir þeirra lísi, ad
hann drepi þá med beittu sverdi, án medaumk-
unar vid þá, án vægdar, miskunarlaust.

8. Og vid þetta fólk skaltu segja: svo segir
Drottinn: sjá, eg legg fyrir ydur veg lífsins og
veg daudans. 9. Hvør sem verdur kyrr í þess-
um stad, hann mun deya fyrir sverdi, húngri og
drepsótt; en hvør sem geingur út, og fer til
Kaldeumanna, sem ydur umsitja, sá heldur lís-
inu, og honum verdur hans sál ad hlutskipti.
10. Því eg sný mínu andliti móti þessum stad,
til ílls, og ekki til góds, segir Drottinn; hann
skal géfast í hønd Babels Kóngi, svo hann
brenni hann í eldi.

11. Og vid hús Júda Kóngs (skaltu segja)
heyrid ord Drottins, 12. Davíds hús! svo seg-
ir Drottinn, haldid árla dóm, og frelsid þann
rænda af hendi undirþrikkjarans, ad mín grimd
brjótist ei út, sem eldur, og brenni ósløkkanlega,
sakir vondsku ydar athafna!

13. Sjá, eg vil til ydar (koma), innbúar
dalsins, klettsins á vellinum, segir Drottinn, til
ydar sem segid: hvør mun koma nidur til vor,
og hvør brjótast inn í vora bústadi? 14. Og eg
skal finna ydur, eptir ávøxtum ydar athafna,
segir Drottinn, og kveikja eld í ydar skógi, ad
hann brenni allt sem í kríngum ydur er.

## 22. Kapítuli.

Hótanir og fyrirheit.

1. Svo sagdi Drottinn: gakk þú í hús Júda
kóngs og tala þú þar þessa tølu, 2. og seg: heyr
Drottins ord, Júda kóngur, þú sem situr í Da-
víds hásæti, þú og þínir þjónar og þitt fólk,
allir þér, sem inngángid um þessar dyr! 3.
Svo segir Drottinn: ydkid réttindi og réttvísi,
og frelsid þann rænda af hendi undirþrikkjar-
ans, leggist ekki á þá útlendu, munadarlausa
og ekkjur, og gjørid þeim ei rángt, og út-
hellid ekki saklausu blódi á þessum stad! 4.

því ef þér gjörid, sem eg nú segi ydur, svo munu inngánga um dyr þessa húss, Kóngarnir, sem í Davíds hásæti sitja, farandi á vøgnum og hestum, þeir og þeirra þjónar og þeirra fólk. 5. En ef þér hlýdnist ekki þessu tali, svo sver eg vid mig, segir Drottinn, ad þetta hús skal verda ad rústum. 6. Því svo segir Drottinn um Júda Kóngs hús: þú ert mér (sem) Gilead, sem tindur nokkur á Líbanon — ef eg ekki gjöri þig ad audn, ad óbygdum stødum, (þá er leingra til)! 7. Og eg vígi móti þér eydileggjara, hvørn med sínum vopnum, og þeir skulu høggva upp þinn útvalda Sedrusvid, og kasta á eld. 8. Og margar þjódir munu gánga fram hjá þessum stad, og segja einn vid annann: því hefir Drottinn svona farid med þennann mikla stad? 9. Og þá mun svo svarad verda: af því þeir yfirgáfu sáttmála Drottins þeirra Guds, og tilbádu adra gudi, og þjónudu þeim.

10. Grátid ekki þann dauda, og aumkid hann ekki, grátid miklu heldur þann burtflutta! því hann kémur ekki aptur, ad sjá sitt fødurland. 11. Því svo segir Drottinn um Sallum (Jóakas) son Jósía, Júda Kóngs, sem vard Konúngur í stad Jósía fødur síns, og burt var fluttur úr þessum stad: hann mun ei híngad aptur koma; 12. heldur á þeim stad, hvørt þeir hafa flutt hann hertekinn, mun hann deya, og ekki framar sjá þetta land.

13. Vei þeim sem byggir sitt hús med ránglæti, og sín herbergi med rángindum, lætur sinn náúnga vinna kauplaust, og fær honum ekki sín laun; 14. sem segir: eg vil byggja mér rúmgott hús og stóra sali! høggur sér glugga, þyljar med Sedrusvid, og málar med raudum farva! 15. Ætlar þú, ad þú sért Kóngur, þótt þú metist vid adra med Sedrusvidi? Fadir þinn, át hann ekki og drakk? En — hann ydkadi rétt og réttvísi, því gékk honum vel: 16. hann tók málstad hinna aumu og fátæku; því vegnadi honum vel. Er þetta ekki ad þekkja mig, segir Drottinn? 17. En þín augu og þitt hjarta midar ekki á annad, heldurenn ábata og saklaust blód, ad úthella því, og á þad, ad beita undirokun og ofbeldi.

18. Því segir Drottinn svo, um Jójakim, Jósíason, Júda Kóng: menn munu ekki harma hann: (ekki segja) æ! minn bródir! og æ! mín systir! menn munu ekki harma hann: (og segja:) æ! herra! og æ! hans dýrd! 19. Eins og menn jarda asna, mun hann jardadur verda, hann mun verda dreginn, og honum lángt kastad frá Jerúsalems portum.

20. (Jerúsalem)! stíg uppá Líbanon og hljóda og lát þína raust gjalla í Basan, og hljóda þú frá Abarim, því øll þín uppáhøld (hjágudir) eru sundurmølud. 21. Eg taladi vid þig í þinni velgeingni; þú sagdir: eg vil ekki heyra: þad var þín breitni frá æsku, þú vildir ei hlýdnast minni raust. 22. Alla þína hirdara skal vindurinn fæda, og þínir ástvinir munu fara herteknir burt; þá muntu hafa skømm og sneipu fyrir alla þína vondsku. 23. Þú sem býr á Líbanon, og hreidrar þig í Sedrusvidi, hvørnig gétur þú verid aumkunarverd, þegar yfir þig koma þjáníngarnar, hrídir eins og yfir jódsjúka konu.

24. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn, þó (þú) Jekonía, sonur Jójakims, Júda Konúngur, værir signets hríngur á minni hægri hendi, mundi eg samt rífa þig þadan. 25. Og eg géf þig í þeirra hønd, sem sækjast eptir þínu lífi, og í þeirra hønd sem þú hrædist, og í hønd Nebúkadnesars, Kóngs í Babel, og í hønd Kaldeumanna. 26. Og eg kasta þér og módur þinni, sem ól þig, burt í annad land, hvar þid erud ekki fædd, og þar skulud þid deya;

V. 6. Gilead grøsugt og frjóssamt land, á Líbanon fjalli ágjætasti skógur. V. 22. Adr: vindurinn burtflytja.

27. og þid skulud ei aptur koma í þad land, sem
ykkar hjarta lángar til ad komast í aptur.
28 „Er þá þessi madur Jekonía fyrirlitlegt,
brotid ílát, eda er hann, ílát sem mønnum ekki lík-
ar? hvørs vegna verdur honum og hans nidjum
útskúfad og burtkastad, í land, sem þeir ekki
þekkja? 29. O! land, land, land, heyr Drott-
ins ord! 30. Svo segir Drottinn: skrifid
þenna mann sem ávaxtarlausann, sem mann, er
eingin þrif hefir í sínu lífi! því einginn af
hans nidjum, sem situr í Davíds hásæti og
drottnar yfir Júda framvegis, mun þrífast.

## 23. Kapítuli.

*Jeremías talar um þann rétta hirdir eda Kóng, og leiguliða, samt falsspámenn.*

1. Vei þeim hirdurum sem afvega leida
(tína) og tvístra minni hjørd! segir Drottinn.
2. Því segir Drottinn svo, Ísraels Gud, um
hirdara míns fólks: þér hafid tvístrad minni
hjørd, og sundurtætt og ekki eptir henni litid:
sjá! eg skal finna ydur, fyrir vondsku ydar
athæfis, segir Drottinn. 3. Og eg skal safna
leifum minnar hjardar úr øllum løndum, sem
eg hefi hrakid þá í, og eg skal leida þá aptur í
þeirra haglendi, ad þeir tímgist og fjølgi. 4.
Og eg skal setja yfir þá hirdara, sem haldi
þeim til haga, og þeir skulu ei framar hræd-
ast né skélfast, og einkis þeirra skal saknad
verda, segir Drottinn.
5. Sjá! þeir dagar koma, þá eg mun láta
af Davíd koma, réttan kvist (grein) sem ríkir
med vísdómi og eflir réttindi og réttvísi í land-
inu. 6. Á hans tíma mun Júda (land) verda
lukkulegt og Ísrael búa óhulltur, og med
þessu nafni munu menn nefna hann: Drottinn
vort réttlæti. 7. Þess vegna, sjáid! dagar
munu koma, segir Drottinn, ad menn ei fram-
ar segja: „svo sannarlega sem Drottinn lifir,
sá sem flutti Ísraelssyni úr Egyptalandi"! 8.
heldur: „svo sannarlega sem Drottinn lifir,
sem flutti burt nidja Ísraels húss, og heim aptur,
úr landinu nordur frá, og úr øllum løndum, hvørt
eg hrakti þá"; og þeir skulu búa í sínu landi.
9. Vidvíkjandi spámønnunum er mitt hjarta
í mínu brjósti sundurmarid, øll mín bein skjálfa;
eg er eins og drukkinn madur, og eins og sá
madur sem vínid hefir unnid á, sakir Drottins,
og sakir hans heilaga ords. 10. Því af
hórdóms mønnum er landid fullt; og sakir
bølvunarinnar syrgir landid, haglendi eydi-
merkurinnar er skrælnad. Þeirra hlaup er
vondska, og þeirra kraptur ránglæti. 11. Því
bædi spámennirnir og prestarnir eru hræsnar-
ar; líka í mínu húsi finn eg þeirra vondsku,
segir Drottinn. 12. Því mun þeirra vegur
verda þeim sem hálka í myrkri; þeim mun
skridna fótur, og þeir munu detta sídan, því
eg skal leida ógjæfu yfir þá, á þeirra hegníng-
ar tíma, segir Drottinn.
13. Hjá Samaríu spámønnum sá eg heimsku:
þeir spádu í nafni Baals, og leiddu í villu
mitt fólk, Ísrael; 14. en á Jerúsalems spá-
mønnum sje eg (eitthvad) óttalegt: ad hórast
og fara med lygar, og þeir efla vondskuna,
svo ad þeir ekki snúi sér, hvør frá sinni vondsku;
þeir eru mér allir sem Sódóma, og þeirra
innbúar sem Gomorra. 15. Því segir
Drottinn herskaranna svo um spámennina: sjá!
eg metta þá med malurt og drykkja þá med
ólifjunar vatni; því frá spámønnunum er
spillíng farin útyfir allt landid. 16. Svo segir
Drottinn herskaranna: hlustid ekki á ord spá-
mannanna, sem spá ydur! þeir tæla ydur med
hégómlegum meiníngum, síns hjarta opinberun
tala þeir, ekki af munni Drottins. 17. Þeir
tala til þeirra sem forsmá mig; Drottinn
segir: ydur mun vel vegna: og til allra, sem
gánga eptir þverúd síns hjarta, segja þeir:

V. 4. Adr: vitjad verda. V. 6. Réttlæti, adr: heill.

eingin ógjæfa mun yfir ydur koma. 18. Því
hvør hefir stadid í Drottins rádi og sjed og
heyrt hans ord? hvør hefir hlustad eptir, og
hlýdt á hans ord? 19. Sjá! grimmur storm-
ur fer út frá Drottni, og óttalegt óvedur mun
steypast yfir høfud þeirra gudlausu. 20. Drott-
ins reidi mun ei hætta, fyrrenn hann hefir
gjørt, og fyrr enn hann hefir lokid vid hugs-
anir síns hjarta. Seinna munud þér þess
vísir verda.

21. Ekki sendi eg spámennina, þó þeir
hlypu; og ekki taladi eg vid þá, þó þeir spádu.
22. En hefdu þeir stadid í mínu rádi, svo
hefdu þeir kunngjørt mín ord mínu fólki, og
leidt þá til baka frá þeirra vondu vegum, og
illsku þeirra athæfis.

23. Er eg þá ad eins Gud í nánd, segir Drott-
inn, og ekki Gud í fjærlægd? 24. Getur nokkur
falid sig í fylsnum svo, ad eg ekki sjái hann?
segir Drottinn: uppfylli eg ekki himin og jørd?
segir Drottinn.

25. Eg heyri hvad spámennirnir segja, þeir
sem spá lýgi í mínu nafni, þeir segja: mig
dreymdi, mig dreymdi! 26. Skal þetta leingi
(gánga)? hafa þeir spámenn, sem lýgi kénna,
og tál sinna hjartna prédika, í huga, 27. og
hugsa þeir til ad koma fólki til, med sínum
draumum, ad gleyma mínu nafni, eins og þeirra
fedur gleymdu mínu nafni fyrir Baals sakir?
28. Sá spámadur sem drauma hefir, segi hann
drauma; og sá sem mitt ord hefir, hann tali
mitt ord med sannleika. Hvad skal strá hjá
korni? segir Drottinn. 29. Er ei mitt ord
sem eldur, segir Drottinn, og eins og hamar,
sem sundurmolar klettana?

30. Sjá! þess vegna skal eg finna spámenn-
ina, segir Drottinn: sem stela mínu ordi, einn
eptir annann. 31. Sjá! eg skal finna spá-
mennina, segir Drottinn, sem tala eigin túngu,
og segja: hann (Gud) segir. 32. Sjá! eg
skal finna spámennina, sem spá lyga draumum,
segir Drottinn, og segja frá þeim, og afvega-
leida mitt fólk med sínum lygum, og med sínu
yfirlæti, þó eg ekki hafi sendt þá, og ekki þeim
(neitt) skipad, og þó þeir ekkért gagn gjøri
þessu fólki, segir Drottinn.

33. Og þegar þetta fólk spyr þig, eda ein-
hvør spámadurinn eda einhvør presturinn, svo
segjandi: hvør er sú Drottins illspá? þá seg
þú þeim, hvør sú illspá er: eg vil ydur út-
skúfa, segir Drottinn. 34. Og þann spá-
mann og prest, og þann af fólkinu sem segir:
ill spá Drottins: þann sama mann mun eg
straffa og hans hús. 35. Svona skulud þér
segja hvør vid annan, einn vinur (bródir) vid
annan: hvørju hefir Drottinn svarad, hvad
hefir Drottinn talad"? 36. En illspá Drott-
ins skulud þér ekki framar nefna, því (hvør-
jum) manni munu hans ord ólán verda, af
því þér afbakid ord þess lifanda Guds, her-
skaranna Drottins, vors Guds. 37. Svona
skaltu tala vid spámennina: hvørju hefir Drott-
inn svarad þér, og hvad hefir Drottinn talad?
38. En ef þér nefnid illspá Drottins, þá segir
Drottinn svo: af því ad þér talid þetta ord:
„illspá Drottins", og eg sendi til ydar og
sagdi: þér skulud ekki segja: „illspá Drott-
ins". 39. Þá sjá! þess vegna vil eg ydur
yfirgéfa, og ydur útskúfa og þeim stad, sem
eg gaf ydur og ydar fedrum, frá mínu aug-
liti. 40. Og eg legg á ydur eilífa smán og
eilífa sneypu, sem ekki skal gleymast.

## 24. Kapituli.

Þær tvær fíkjukørfur.

1. Drottinn lét mig sjá tvær kørfur fullar
af fíkjum, settar fyrir framan Drottins musteri,
eptir ad Nebúkadnesar, Kóngur í Babel, hafdi
hertekid og flutt burt frá Jerúsalem til Babel
Jekonia Jójakimsson, Júda Konúng, og Júda

høfdíngja, og trésmidina og fángavaktarana. 2. Í annari kørfunni voru mjøg gódar fíkjur, líkar þeim fíkjum sem fyrst ná fullum þroska; og í annari kørfunni voru mjøg slæmar fíkjur, sem voru svo vondar, ad þær voru ekki ætar. 3. Og Drottinn sagdi til mín: hvad sjer þú Jeremías? og eg svaradi: fíkjur; þær gódu fíkjur eru mikid gódar, og þær vondu fíkjur eru mikid vondar, svo menn géta ei etid þær, svo eru þær vondar. 4. Og ord Drottins kom til mín, og sagdi: 5. svo segir Drottinn, Ísraels Gud: líkt þessum gódu fíkjum vil eg líta til þeirra, til góds, sem herteknir voru í Jerúsalem, sem eg sendi burt frá þessum stad í Kaldeumanna land. 6. Og eg stefni mínum augum á þá til góds, og flyt þá aptur í þetta land, og uppbyggi þá, án þess aptur ad niðurrífa þá, og gródurset þá, án þess aptur ad uppræta þá. 7. Og eg géf þeim hjarta til ad þekkja mig, ad eg er Drottinn; og þeir skulu vera mitt fólk og eg vil vera þeirra Gud; því þeir munu snúa sér til mín af øllu hjarta.

8. En líkt vondu fíkjunum, sem menn géta ei etid, vegna þess þær eru svo vondar, segir Drottinn, vil eg fara med Sedekía Júda Kóng, og hans høfdíngja, og leifarnar af Jerúsalem, þá sem eptir eru ordnir í þessu landi, og þá sem búa í Egyptalandi. 9. Og eg sel þá fram til misþirmíngar, til ógjæfu øllum Kóngs ríkjum jardarinnar, til skammar og til ordskvids og til spotts, og til bølvunar, á øllum þeim stødum, hvørt eg hrek þá. 10. Og eg sendi medal þeirra sverd og húngur og drepsótt, þángad til þeir eru afmádir úr landinu, sem eg gaf þeim og þeirra fedrum.

## 25. Kapítuli.

Herleidíngin til Babel.

1. Þad ord sem kom til Jeremías, vidvíkjandi øllu Júda fólki, á fjórda ári Jójakims, Jósíasonar, Júda Kóngs, þad var fyrsta ár Nebúkadnesars, Kóngs í Babel, 2. sem Jeremías spámadur taladi til alls Júdafólks, og til allra Jerúsalems innbúa, og mælti:

3. Frá 13da ári Jósía, Ammonssonar, Júda Kóngs, allt til þessa dags, þessi 23 ár, kom Drottins ord til mín, og eg taladi til ydar frá því snemma dags, en þér heyrdud ekki. 4. Og Drottinn sendi til ydar alla sína þénara, spámennina, frá því snemma dags, en þér heyrdud ekki, og løgdud ei eyrun vid til ad heyra. 5. Þeir søgdu: snúid þó, hvør einn frá sínum vondu vegum, til baka, og frá vondsku sinna verka, svo skulud þér vera í landinu, sem Drottinn gaf ydar fedrum, frá eilífd til eilífdar! 6. Og adhyllist ekki adra gudi, svo þér þjónid þeim og tilbidjid þá; og módgid mig ekki med verkum ydar handa, svo skal eg ekkért íllt gjøra ydur. 7. En þér gégndud mér ekki, segir Drottinn, heldur módgudud þér mig med verkum ydar handa, ydur til óhamíngju. 8. Því segir Drottinn herskaranna svo: fyrst ad þér hlýddud ekki mínum ordum: 9. sjá! svo sendi eg, og sæki allar kynkvíslir nordursins, segir Drottinn, og til Nebúkadnesars Kóngs í Babel, míns þjóns, og læt þá koma yfir þetta land, og yfir þess innbúa, og yfir allar þjódir hér í kríng, og hrek þær í útlegd, og gjøri þær ad vidbjód og hádúng og eilífum rústum, 10. og afmái alla gledi raust og gladværdar raust, brúdgumans raust, og brúdurinnar raust, kvarnarnidinn, og lampans ljós. 11. Og allt þetta land skal verda ad rústum, ad eydimørk, og þessar þjódir skulu þjóna undir Kónginn af Babel, í 70 ár.

12. En þad skal ské, þegar 70 ár eru lidin, þá vil eg refsa Kónginum í Babel og hinu sama fólki, segir Drottinn, fyrir þess misgjørd, og Kaldeumanna landi, og gjøra þad ad eilífri audn. 13. Og eg læt yfir sama land koma

øll mín orð, sem eg hefi um það talað, allt
sem skrifað er í þessari bók, sem Jeremías spáð
hefir, um allar þjóðir; 14. því líka gjöra þeir
miklar þjóðir, og stóra Konúnga sér undirgéfna,
og eg umbuna þeim eptir þeirra athæfi og eptir
verkum þeirra handa.

15. Því svo sagði Drottinn, Ísraels Guð,
til mín: tak við þessum bikar fullum af reið-
innar víni af minni hendi, og láttu allar þjóð-
ir drekka hann, sem eg sendi þig til, 16. svo
þær drekki, rambi og æði fyrir því sverði sem
eg sendi meðal þeirra. 17. Og eg tók við
bikarnum af Drottins hendi, og lét allar þjóð-
ir drekka, til hvörra Drottinn hafði mig sendt.
18. Jerúsalem og Júda staði og þeirra Kon-
únga, og þeirra höfðíngja, til að gjöra þá að
rústum, að viðbjóð, að háðúng, og að bölvun,
eins og nú (er skéð): 19. Faraó, Egyptalands
Kóng, og hans þjóna og hans höfðíngja og
allt hans fólk, 20. og allar sambands (vest-
urlands) þjóðirnar og alla Konúnga í landinu Us
og alla Konúnga Filistealands og í Askalon og
Gasa og Ekron, og leifarnar af Asdod. 21.
Edomíta og Móabíta og Ammonssyni, 22. og
alla Konúngana í Tyrus, og alla Konúngana í
Sídon, og Konúnga eyanna, hinumegin við
hafið, 23. Dedan og Tema og Bús og alla
með skornu skéggi (Arabiska). 24. Og alla
Arabíu Kónga og alla Kónga sambands þjóð-
anna, sem búa í eyðimörkinni, 25. og alla Kon-
úngana í Simri, og alla Konúngana í Elam
og alla Konúngana í Medíu, 26. og alla Kon-
únga norðursins, þá nálægari og fjærlægari,
einn sem annann, og öll heimsins Kóngsríki á
jörðunni; og Kóngurinn af Sesak (Babel)
skal eptir þessa drekka.

27. Og seg til þeirra: svo segir Drottinn her-
skaranna, Ísraels Guð: drekkið og verðið öl-
vaðir og ælið upp og dettið, og standið ekki
upp aptur, fyrir sverðinu, sem eg sendi meðal
yðar. 28. Og ef þeir færast undan að taka
við bikarnum af þinni hendi, til að drekka, þá
seg til þeirra: svo segir Drottinn herskaranna:
þér skuluð drekka! 29. Því sjá! á þeim stað
sem nefndur er eptir mínu nafni, byrja eg að
beita hörðu; og þér skylduð hugsa að komast
hjá hegníngu? þér munuð ei sleppa undan refs-
íngu, því sverðið kalla eg yfir alla innbúa jarð-
arinnar, segir Drottinn herskaranna. 30. En
prédika (spá) þú þeim öll þessi orð, og seg til
þeirra: Drottinn grenjar af hæðinni, og frá sínum
heilaga bústað lætur hann sína raust gjalla,
hann grenjar móti sínum bústað, óp, eins og
þess sem vínþrúgu treður, hefur hann upp móti
öllum jarðarinnar innbúum, 31. hljómurinn
þreyngir sér allt að veraldarinnar enda; því
stríð á Drottinn við þjóðirnar, hann er geing-
inn í rétt við allt hold; þá guðlausu afhendir
hann sverðinu, segir Drottinn.

32. Svo segir Drottinn herskaranna: sjá,
ógjæfan fer frá þjóð til þjóðar, og mikill storm-
ur tekur sig upp frá því ysta jarðarinnar. 33.
Þeir sem Drottinn hefir að velli lagt, liggja
á þeim sama tíma frá einum enda jarðarinn-
ar til annars, þeir eru ekki harmaðir, ekki burt
dregnir, og ekki verða þeir jarðaðir, að áburði
á vellinum verða þeir. 34. Æpið hirðarar,
kveinið, og veltið yður (í dupti), þér leiðtogar
hjarðarinnar! því nú er sá tími, að yður skal
verða slátrað; og eg tvístra yður, að þér dettið í
sundur sem dýrt kér. 35. Hirðararnir géta ei
undan komist og fyrirliðar hjarðarinnar géta ei
bjargað sér. 36. Kvein hirðaranna hljómar og
óp hjarðarinnar leiðtoga, því Drottinn eyði-
leggur þeirra haglendi, 37. friðarins beitiland
er eyðilagt af Drottins grimdar reiði. 38.
Hann kémur, sem ljón úr sínu bæli; því þeirra
land verður að auðn fyrir grimd víkíngsins, og
fyrir grimd hans reiði.

## 26. Kapítuli.

Jeremías ákjærdur og fríkéndur.

1. Í byrjun ríkisstjórnar Jójakims, sonar
Jósía, Júda kóngs, kom þetta ord frá Drottni,
er hann sagdi: 2. svo segir Drottinn: gakk í
forgard Drottins húss, og tala til þeirra, sem
koma úr øllum Júda stødum, til þess ad tilbidja
í Drottins húsi, øll þau ord, sem eg hefi bodid
þér ad tala til þeirra, drag þú ekkért ord af,
3. líklega heyra þeir og snúa sér frá sínum
vondu vegum: þá læt eg mig ydra þess illa,
sem eg hygg ad gjøra þeim, sakir vondsku þeirra
athæfis. 4. Og seg til þeirra: svo segir Drott-
inn: ef þér heyrid mér ekki, svoad þér gángid í
mínu løgmáli, sem eg hefi fyrir ydur lagt, 5.
svoad þér hlýdid ordum minna þjóna, spámann-
anna, sem eg til ydar sendi frá því snemma
dags, án þess þér heyrid: 6. svo gjøri eg þetta
hús sem Síló, og þennan stad gjøri eg øllum
þjódum jardarinnar ad bølvun.

7. Og prestarnir og spámennirnir og allt fólk-
id heyrdi Jeremías tala þessi ord í Drottins
húsi; 8. og þad skédi, þá Jeremías hafdi út
talad allt þad sem Drottinn baud honum ad tala
til alls fólksins: svo gripu prestarnir hann og
spámennirnir og allt fólkid og søgdu: þú hlýtur
ad deya! 9. því spáir þú í nafni Drottins og
segir: eins og Síló skal þetta hús verda, og
þessi stadur skal eydileggjast, og einginn í hon-
um búa? Og allt fólkid samansafnadist í húsi
Drottins gégn Jeremías. 10. En sem Júda
høfdíngjar heyrdu þetta, komu þeir úr Kóngsins
húsi í Drottins hús og settu sig í inngáng Drott-
ins nýu dyra. 11. Og prestarnir og spámenn-
irnir tøludu til høfdíngjanna og til alls fólksins
og søgdu: þessi madur er daudaverdur; því
hann hefir spád móti þessum stad, eins og þér
heyrdud med ydar eyrum.

12. Þá mælti Jeremías til allra høfdíng-
janna og til gjørvalls fólksins: Drottinn hefir
sendt mig ad spá móti þessu húsi, og móti
þessum stad, øllu því, sem þér hafid heyrt
mig tala. 13. Og bætid nú ydar framferdi
og ydar athafnir, og hlýdid raust Drottins
vors Guds: þá mun Drottinn ydrast þess illa
sem hann hefir ydur á móti talad. 14. En
eg, sjá! eg em á ydar valdi; farid med mig
sem ydur sýnist rétt og gott í ydar augum.
15. En þad meigid þér vita, ad ef þér deydid
mig, þá leidid þér saklaust blód yfir ydur, og
yfir þennan stad, og yfir hans innbúa; því
sannarlega hefir Drottinn sendt mig til ydar, ad
eg tala skyldi øll þessi ord fyrir ydar eyrum.

16. Þá søgdu høfdíngjarnir og allt fólkid
vid prestana og spámennina: ei vinnur þessi
madur til lífláts; því hann hefir til vor tal-
ad í nafni Drottins, vors Guds. 17. Og
þar gengu nokkrir fram af øldúngum landsins
og tøludu vid allan fólks søfnudinn og søgdu:
18. Míka, Morasktiti, spádi á døgum Esekía,
Júda Kóngs, og taladi vid allt Júda fólk, og
sagdi: svo segir Drottinn herskaranna: Síon
skal verda plægd sem akur, og Jerúsalem verda
ad grjóthrúgu, og fjallid hússins (Drottins) ad
skógarhæd. 19. Mundi Esekías Júda Kóngur og
allt Júda fólk hafa deydt hann? Ottadist hann
ekki Drottinn og grátbændi Drottinn, og lét
Drottinn sig ekki ydra alls þess illa er hann
hafdi yfir þeim talad? og vér munum vinna
mikid illvirki móti vorum sálum.

20. Líka spádi (annar) madur Uría, í
nafni Drottins, sonur Semaja, frá Kirjat-Je-
arim, og spádi móti þessum stad, og móti
þessu landi, sømu ordum og Jeremías. 21.
Og sem Kóngurinn Jójakim og allir hans
strídskappar, og allir høfdíngjar heyrdu hans
tal, svo vildi Konúngur deyda hann; en þá
Uría heyrdi þad, vard hann hræddur og flúdi,
og komst til Egyptalands. 22. Þá sendi
Jójakim Kóngur, menn til Egyptalands, Elnat-

an, Akborsson, og menn med honum, til E-
gyptalands. 23. Og þeir komu med Uría úr
Egyptalandi, og leiddu hann fyrir Jójakim
Kóng, og hann vann á honum med sverdi, og
kastadi líkama hans í grafir almúga fólks. 24.
En hønd Ahíkams, sonar Safans, var med
Jeremías, svo menn ekki gáfu hann í hendur
fólkinu, til ad deyda hann.

## 27. Kapítuli.

*Umleitun ad géfast upp vid óvinina.*

1. Í upphafi ríkisstjórnar Sedekía, sonar
Jósía, Júda Kóngs, kom þetta ord frá Drottni
til Jeremías og sagdi: 2. Svo segir Drottinn
til mín: gjør þér bønd og ok, og láttu um
þinn háls, 3. og send þetta til Kóngsins í
Edoms (landi) og til Móabs Kóngs, og til
Konúngs Ammons sona, og til Kóngsins í
Týrus, og til Kóngsins í Sídon, med sendi-
mønnum sem komnir eru til Jerúsalem, til
Sedekía Júda Kóngs. 4. Og bjód þeim vid-
víkjandi þeirra herrum, og seg: svo segir Drott-
inn herskaranna, Ísraels Gud: (svo skulud
þér segja vid ydar herra): 5. Eg hefi gjørt
jørdina, menn og skepnur, sem á henni (eru)
med mínum mikla krapti og útrétta armi, og
eg géf þetta hvørjum sem eg vil. 6. Og nú
géf eg øll þessi lønd Nebúkadnesar Babels
Kóngi í hønd, mínum þjón, og líka géf eg hon-
um villudýr merkurinnar, ad þau þjóni hon-
um. 7. Og allar þjódir skulu honum þjóna,
og hans syni og hans sonarsyni, þángad til
og svo kémur tími hans lands, og þá skulu
voldugar þjódir og miklir Kóngar leggja þad
undir sig. (25, 12). 8. Og þá þjód, og
þad land, sem ei vill honum þjóna, Nebúkad-
nesar, Babels Kóngi, og sem ekki beigir sinn
háls undir ok Babels Kóngs: því fólki mun
eg refsa med sverdi og húngri og drepsótt,
segir Drottinn, þángad til eg hefi afmád þad,
med hans hendi. 9. Og gégnid ekki ydar spámønn-
um, og ydar spásagnamønnum, og ydar draum-
um og ydar tøframønnum og ydar særíngamønn-
um, sem vid ydur segja: þér munud ei þjóna
Kónginum af Babel. 10. Því lýgi prédika þeir
ydur, til ad flæma ydur úr ydar landi, og ad
eg reki ydur burt, og ad þér fyrirfarist. 11.
En þad fólk sem leggur sinn háls undir ok
Kóngsins af Babel og þjónar honum, þad vil
eg láta vera í sínu landi, segir Drottinn, ad
þad yrki þad, og búi þar.

12. Og vid Sedekías, Júda Kóng, taladi eg
einmidt þessi ord, og sagdi: leggid ydar háls
undir ok Kóngsins af Babel, og þjónid honum
og hans fólki: þá munud þér lifa. 13. Hvar
fyrir viljid þér deya, þú og þitt fólk, sem ei
vill þjóna Kónginum af Babel? 14. Og
gégnid ekki ordum spámannanna, sem til ydar
segja: þér munud ei þjóna Kónginum af Ba-
bel, því lýgi prédika þeir ydur; 15. því ekki
hefi eg sendt þá, segir Drottinn, og þeir pré-
dika lýgi í mínu nafni, svo ad eg hreki ydur
burt, og þér fyrirfarist, þér og ydar spámenn,
sem ydur spá.

16. Og vid prestana og allt þetta fólk tal-
adi eg, og sagdi: svo segir Drottinn: géfid
eingan gaum tali ydar spámanna, sem ydur
spá og segja: sjá! áhøld Drottins húss munu
til baka flutt verda frá Babel nú skjótt; því
lýgi prédika þeir ydur. 17. Gégnid þeim ekki,
þjónid Kónginum af Babel, þá munud þér
lifa. Hví skyldi stadur þessi verda ad rúst-
um? 18. En ef þeir eru spámenn, og ef
Drottins ord er hjá þeim, þá beri þeir fyrir
Drottinn herskaranna þá bæn, ad þau áhøld
sem eptir eru ordin í húsi Drottins, og í húsi
Júda Kóngs og í Jerúsalem, komi ekki líka
til Babel. 19. Því svo segir Drottinn her-
skaranna um stólpana og um hafid, og um
bordstólana, og um hin ønnur áhøld, sem

eptir eru ordin í þessum stad, 20. sem Nebúkadnesar, Babels Kóngur, ekki tók, þegar hann flutti burt Jekonía, Jójakimsson, frá Jerúsalem til Babel, með øllum þeim ættgøfugu af Júda og Jerúsalem. 21. Því svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud, um áhøldin, sem eptir eru ordin í húsi Drottins, og í húsi Júda Kóngs og í Jerúsalem: 22. til Babel skulu þau flutt verda, og þar skulu þau vera þángad til eg vitja þeirra, segir Drottinn, og sæki þau, og flyt þau aptur á þennan stad.

## 28. Kapítuli.

Móti falsspámanni nokkrum Hananía.

1. Og þad skédi á því sama ári, í byrjun ríkisstjórnar Sedekía, Júda Kóngs, á fjórda ári í fimta mánudi, ad Hanania, spámadur, sonur Assurs frá Gibeon sagdi vid mig, í Drottins húsi, í áheyrn prestanna og alls fólksins, og mælti: 2. Svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud: eg sundurbrít ok Kóngsins af Babel. 3. Innan tveggja ára flyt eg á þennan stad aptur øll áhøld Drottins húss, sem Nebúkadnesar, Kóngur í Babel, tók burt af þessum stad, og flutti til Babel. 4. Og Jekonia, Jójakimsson, Júda Konúng, og alla þá af Júda, sem med honum voru herleiddir, sem komu til Babel, þá flyt eg til baka á þennan stad, segir Drottinn; því eg mun sundurbrjóta ok Kóngsins af Babel.

5. Þá sagdi Jeremías spámadur vid Hanania spámann, í áheyrn prestanna og í áheyrn alls fólksins, sem þar stód í húsi Drottins, 6. og Jeremías, spámadur, mælti: svo sé þad! Drottinn gjøri þad! Drottinn láti þín ord rætast, sem þú spádir, ad hann flyti tilbaka áhøld Drottins húss og alla hertekna frá Babel á þennann stad. 7. Heyr ad eins þetta ord, sem eg tala fyrir þínum eyrum, og fyrir eyrum alls fólksins! 8. Þeir spámenn sem voru á undan mér og undan þér frá alda ødli, þeir spádu móti mørgumløndum og stórum Kóngsríkjum, um stríd og óhamíngju og drepsótt. 9. Sá spámadur sem spáir fridi, ef ord spámannsins rætast, verdur þektur sem spámadur, sem Drottinn hafi sannarlega sendt. 10. Þá tók Hanania spámadur okid af hálsi Jeremía spámanns og braut þad í sundur. 11. Og Hanania mælti í áheyrn alls fólksins og sagdi: svo segir Drottinn: eins skal eg sundurbrjóta, innan tveggja ára, ok Nebúkadnesars Kóngs af Babel, af hálsi allra þjóda. Og Jeremías spámadur gékk sinn veg.

12. Og ord Drottins kom til Jeremías, eptir ad Hanania spámadur hafdi brotid okid af hálsi Jeremía spámanns, og sagdi: 13. far og seg Hanania, og mæl: svo segir Drottinn: ok af tré hefir þú sundurbrotid, en í þess stad gjørt járnok. 14. Því svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud: Járnok legg eg á háls allra þessara þjóda, ad þær þjóni Nebúkadnesar, Babels Kóngi, og þær munu honum þjóna; og líka géf eg honum merkurinnar villudýr.

15. Og Jeremías spámadur sagdi vid Hanania spámann: heyrdu nú, Hanania! ekki hefir Drottinn sendt þig, og þú hefur komid inn hjá þessu fólki trausti til lyga: 16. því segir Drottinn svo: sjá! eg kém þér burt af jørdinni; á þessu ári deyr þú, því þú hefur (komid fólki til ad falla frá Drottni med þínu tali) talad fráfall gégn Drottni. 17. Og Hanania spámadur dó á sama ári, í sjøunda mánudi.

## 29. Kapítuli.

Bréf til þeirra herteknu. Falsspámadurinn Semaja.

1. Og þetta eru ord bréfsins, sem Jeremías spámadur sendi frá Jerúsalem, til þeirra eptirordnu øldúnga af þeim herteknu, og til prestanna og til spámannanna, og til alls fólksins,

sem Nebúkadnesar flutti frá Jerúsalem til Bab-
el, 2. eptir ad Jekonia Kóngur og Drottníng-
in, og hirdmennirnir, høfdíngjar af Júda og Je-
rúsalem og trésmidir og fángavaktarar fóru frá
Jerúsalem, 3. med Eleasa, syni Safans, og
Gemaria, syni Hilkia, sem Sedekía, Júda Kon-
úngur, sendi til Nebúkadnesar, Kóngs í Babel,
til Babel, svo látandi:

4. Svo segir Drottinn herskaranna, Israels
Gud, øllum herteknum, sem eg flutti frá Jerú-
salem til Babel: 5. byggid hús, og búid, sá-
id garda, og etid þeirra ávexti. 6. Takid kon-
ur og aflid sona og dætra, og takid konur
ydrum sonum, og gésid dætrum ydar menn, ad
þær ali syni og dætur, og timgist þar og ó-
timgist ekki. 7. Eflid heill stadarins, í hvørn
eg flutti ydur og bidjid til Drottins fyrir hon-
um; því hans velgeingni mun vera ydar vel-
geingni. 8. Því svo segir Drottinn herskaranna,
Israels Gud: látid ei ydar spámenn tæla yd-
ur, þá sem medal ydar eru, og ydar spásagna-
menn, og hlustid ekki á ydar drauma, sem yd-
ur dreymir. 9. Því ljúgandi spá þeir ydur í
mínu nafni, eg hefi ekki sendt þá, segir Drott-
inn; 10. því svo segir Drottinn: þegar full-
komnud eru 70 ár fyrir Babel, svo skal eg vit-
ja ydar, og efna mín gódu fyrirheit vid ydur,
ad flytja ydur til baka, á þennan stad. 11.
Því eg (einn) veit þær rádsáliktanir, sem eg,
ydur vidvíkjandi, gjøri, áliktanir til heilla, en
ekki til óheilla, ad láta ydur fá útgáng (lausn)
og von. 12. Og þér munud kalla til mín,
og fara (ánægdir) og bidja mig, og eg mun
heyra ydur. 13. Og þér munud leita mín og
finna mig; því þér munud snúa ydur til mín
af øllu hjarta. 14. Og eg vil láta ydur finna
mig, segir Drottinn, og eg vil flytja ydar faung-
udu til baka, og safna ydur frá øllum þjódum og
úr øllum løndum, hvørt eg rak ydur, segir Drott-
inn; og vil flytja ydur aptur á þann stad,
hvadan eg flutti ydur. 15. Þared þér segid:
Drottinn hefir uppvakid oss spámenn í Babel.
16. Því svo segir Drottinn um Kónginn sem
situr í Davíds hásæti, og um allt fólkid, sem
býr í þessum stad, ydar brædur, sem ekki voru
med ydur fluttir í herleidínguna; 17. svo segir
Drottinn herskaranna: sjá! eg sendi medal þeirra
sverd og húngur og drepsótt og gjøri þá líka
þeim (24, 2. fylg. v). leidu fíkjum, sem voru
svo slæmar, ad menn gátu ei etid þær. 18.
Og eg offæki þá med sverdi, húngri og drep-
sótt, og framsel þá til misþyrmíngar øllum
Kóngsríkjum jardarinnar, til bølvunar, og til
vidbjóds, og til hádúngar, og til skammar,
medal allra þjóda, hvørt sem eg hrek þá: 19.
fyrir þad, ad þeir hlýddu ekki mínum ordum,
segir Drottinn, þegar eg sendi til þeirra mína
þjóna, spámennina, frá því árla dags, og
þér heyrdud ekki, segir Drottinn. 20. En þér
heyrid ord Drottins, allir burtfluttir, sem eg
hefir sendt frá Jerúsalem til Babel.

21. Svo segir Drottinn herskaranna, Isra-
els Gud, um Akab, Kolajason, og um Sede-
kía, Maesejason, sem prédika ydur lygar í mínu
nafni: sjá! eg géf þá í hønd Nebúkadnesars,
Kóngs af Babel, ad hann vinni á þeim fyrir
ydar augum. 22. Og af þeim munu óbænir
dregnar verda af øllum Júda herteknu, sem í
Babel eru, svo menn munu svo ad ordi kveda:
„Drottinn gjøri þig líkan Sedekía og Akab,
sem Babels Kóngur lét steikja á eldi". 23.
Søkum þess þeir adhøfdust ódáda verk í
Israel, og drýgdu hór med konum sinna ná-
únga, og tøludu lýgi í mínu nafni, sem eg
hafdi ei bodid þeim. En eg veit þad og er þess
vottur, segir Drottinn.

24. Og til Semaja, Nehalamíta, skaltu seg-
ja: 25. Svo segir Drottinn herskaranna, Is-
raels Gud: søkum þess ad þú í þínu nafni
sendir bréf til alls fólksins í Jerúsalem, og til

Sefanía, sonar Maeseía, prestsins, og til allra
prestanna, þess innihalds: 26. Drottinn hefir
sett þig prest í stad Jójada prests, ad þú skyld-
ir vera umsjónarmadur í húsi Drottins gégn
øllum ódum og spáandi, og skyldir setja þá í
fjøtra og fángélsi: 27. því hefir þú ekki ávítad
Jeremías frá Anatot, sem spáir ydur? 28.
Því þess vegna hefir hann skrifad oss til í
Babel og sagt: þad verdur lángt! byggid hús
og búid, plantid garda, og etid þeirra ávexti.
29. Og Sefanía prestur, las þetta bréf fyrir
eyrum Jeremía spámanns. 30. Og ord Drott-
ins kom til Jeremías og sagdi: 31. skrifa
til allra hertekinna þess innihalds: svo segir
Drottinn um Semaja, Nehalamítan: søkum
þess ad Semaja spáir ydur, og eg hefi þó
ekki sendt hann, og hefir komid ydur til ad treysta
lýgi: 32. Þá segir Drottinn svo: sjá! eg
refsa Semaja, Nehalamíta, og hans nidjum;
einginn madur af honum (kominn) skal búa
medal þessa fólks, og skal ekki sjá þad góda,
sem eg gjøri mínu fólki, segir Drottinn; því
fráfall frá Drottni hefir hann talad.

## 30. Kapituli.

*Fyrirheit um heimkomu aptur.*

1. Þetta ord kom frá Drottni til Jeremía,
er hann sagdi: 2. svo segir Drottinn Ísraels
Gud: skrifa þú øll þau ord, sem eg hefi til þín
talad í eina bók. 3. Því sjá, þeir dagar koma,
segir Drottinn, ad eg leidi til baka þá herteknu
míns fólks, Ísrael og Júda, segir Drottinn,
og flyt þá inní þad land, sem eg gaf þeirra
fedrum, ad þeir ættu þad.

4. Og þetta eru þau ord, sem Drottinn
taladi um Ísrael, og um Júda. 5. Því svo
segir Drottinn: raust óttans heyrum vér,
hrædsla er á ferd, og einginn fridur. 6.
Spyrjid þó og sjáid hvørt kallmadurinn fædir
barn? Hvørs vegna sje eg þá hvørn mann
leggja hønd ad sínum lendum, eins og konur
gjøra sem fæda? Og hvørt andlit nábleikt?
7. Æ! mikill er þessi dagur, á ekki sinn líka;
þetta er þreyngíngartíd fyrir Jakob; en hann
skal samt úr þessu frelsast. 8. Og þad mun
ské, á sama degi, segir Drottinn herskaranna,
ad eg skal brjóta okid af þínum hálsi, og þín
bønd slíta, og útlendir skulu ei framar undir-
oka þig; 9. heldur munu þeir þjóna Drottni
sínum Gudi, og Davíd sínum Konúngi sem eg
set þeim. 10. Óttast nú ekki, minn þjón Ja-
kob, segir Drottinn, og bid mig, Ísrael! því
sjá! eg frelsa þig úr fjarlægd, og þína nidja
úr landi þeirra fángélsis, og Jakob kémur apt-
ur, og er rólegur og óhulltur, og án hrædslu.
11. Því eg er med þér, segir Drottinn, til ad
hjálpa þér, því eg vil gjøra útaf vid allar
þjódir, medal hvørra eg hefi þér tvístrad; þig
einasta vil eg ekki afmá. Og eg aga þig med
vægd, órefstan gét eg ekki látid þig.

12. Því svo segir Drottinn: banvænt er þitt
sár, ólæknanleg þín lemstur. 13. Einginn rækir
þitt málefni, ad hann bindi um þau; læknis-
medøl, umbúdir hefir þú ekki. 14. Allir þínir
elskugar hafa gleymt þér, þeir spyrja ekki ad
þér. Því med óvinar høggi hefi eg þig slegid,
med grimmilegri hirtíng, sakir fjølda þinna
misgjørda, af því margar eru þínar syndir.
15. Hvad æpir þú af þínu sári? banvænleg er
þín kvøl; sakir fjølda þinna misgjørda, af því
margar eru þínar syndir, hefi eg gjørt þér
slíkt. 16. Þar fyrir skulu allir sem þig eta,
etnir verda, og allir sem þér þraungva, fara í
fángélsi; og þeir sem þig ræna, verda rændir,
og þeir sem þig rupla, skulu rupladir verda.
17. Því eg skal binda um sár þín, og græda
þín lemstur, segir Drottinn. Því þá burthrøktu,
kølludu menn þig, Síon, sem einginn spurdi
ad. 18. Svo segir Drottinn: sjá! eg flyt
þau herteknu Jakobs tjøld til baka, og miskuna

mig yfir hans bústad; og bygdur verdur stad-
urinn aptur á sinni hæd, og í høllinni skal
verda búid sem ádur. 19. Og þadan hljóma
þakkarljód og raust saungvarans; og eg fjølga
þeim, ad þeir séu ekki fáir, og gjøri þá veg-
samlega, ad þeir séu ekki lítilmótlegir. 20. Og
hans (Jakobs) synir skulu vera sem fyrri, og
hans søfnudur skal standa frammi fyrir mér,
og eg skal finna alla hans undirþrikkjara, 21. og
hans vegsamlegi (fyrirlidi) skal vera einn af
þeim, og hans yfirmadur midt úr hans (hóp)
framgánga; og eg læt hann gánga fram, ad
hann nálgist mig; því hvør a) ábirgist sitt
hjarta til þess ad (géta) nálgast mig? segir
Drottinn. 22. Og svo skulud þér vera mitt
fólk, og eg skal vera ydar Gud.

23. Sjá! stormur Drottins, grimd leggur
af stad, rífandi stormur mun steypast yfir høf-
ud þess gudlausa. 24. Ekki mun reidi glód
Drottins følskast, fyrr enn hann hefur gjørt
og fullkomnad hugsanir síns hjarta. Seinna
meir munud þér þar um sannfærast.

## 31. Kapítuli.

Sama efni.

1. Á þeim sama tíma, segir Drottinn,
mun eg vera Gud allra Ísraels ætta, og þeir
munu vera mitt fólk. 2. Svo segir Drottinn:
nád hefir þad fólk fundid í eydimørkinni, sem
undan sverdinu komst; eg fór ad leida þad til
sinnar hvíldar, Ísrael. 3. „Aleingdar opin-
beradist Drottinn mér“, med eilífri elsku elska
eg þig, því hefi eg þér nád vardveitta. 4.
Framvegis vil eg þig uppbyggja, svo þú verdir
uppbyggd, þú meyan Ísraels (þjód)! Hér
eptir muntu þig prýda med þínum hljódfærum,
og framgánga í rødum þeirra sem stíga dans-
inn. 5. Hér eptir munt þú víngarda planta,
á Samaríu fjøllum, og gardyrkjendurnir planta
þá og njóta þeirra. 6. Því sá dagur kémur,
ad vardmennirnir kalla á Efraims fjøllum: af
stad! látum oss fara til Síon, til Drottins,
vors Guds!

7. Því svo segir Drottinn: gledjist yfir
Jakob med føgnudi; æpid fagnadar óp yfir
høfdíngja þjódanna! kunngjørid, hrósid og seg-
id: farsæl, þú Drottinn, þitt fólk, leifarnar af
Ísrael! 8. Sjá! eg flyt þá úr landinu nord-
urfrá, og safna þeim frá jardarinnar ytstu end-
um; medal þeirra eru (nokkrir) blindir og
haltir, þúngadar og jódsjúkar konur sømuleid-
is; í stórum hópum koma þeir híngad aptur.
9. Þeir koma grátandi og eg flyt þá bidjandi;
eg leidi þá ad vatnsbøkkum, á beinum vegi,
sem þeir ei detta á; því eg er Ísraels fadir,
og Efraim er minn frumgétni son.

10. Heyrid ord Drottins, þér þjódir, og
kunngjørid á eyunum í fjarlægd, og segid: sá
sem tvístradi Ísrael, safnadi honum, og vard-
veitir hann, eins og hirdir sína hjørd. 11.
Því Drottinn leysti Jakob, og frelsadi hann úr
hendi hins volduga. 12. Og þeir koma og
gledja sig á Síons hæd, og fagna yfir Drott-
ins blessan, yfir korninu, yfir víninu og vid-
smjørinu, yfir saudunum og nautunum; og
þeirra sálir eru sem vatnsríkir urtagardar, og
þeir verda ei framar ángurværir. 13. Þá
gledja sig meyarnar og únglíngarnir og gam-
almennin í einu lagi; og eg umbreiti þeirra
sorg í unadsemd, og hugga þá og gled þá eptir
þeirra armædu. 14. Og eg endurnæri prest-
anna sál med feiti, og mitt fólk metta eg med
minni blessan, segir Drottinn.

15. Svo segir Drottinn: óp mun heyrast í
Rama, kvein, bitur grátur. Rakel grætur sína
syni, hún vill ei láta sig hugga eptir þá, því
þad er útgjørt um þá. 16. Svo segir Drott-
inn: ver þinn róm fyrir gráti, og þín augu

V. 21. *a.* Eg verd ad gésa hug til þess, ad nokkur þori, ad koma mér nærri.

fyrir tárum, því þín armæda er þér umbun, segir Drottinn, og synirnir koma aptur, úr óvinarins landi. 17. Og vongód gétur þú verid, vidvíkjandi þeim ókomna tíma, segir Drottinn, og synirnir koma aptur heim í sína átthaga. 18. Ad sønnu heyri eg Efraim klaga. Þú hefir tiptad mig, og eg er agadur sem baldinn kálfur: umvend mér, ad eg umvendi mér, því þú Drottinn, ert minn Gud! 19. Eptir ad eg hefi umvendt mér, gjøri eg bót; og eptir ad eg hefi vitkast, slæ eg á mjødmina; eg rodna og sneypist, því eg ber skømm minnar æsku. 20. Er þá Efraim mér ei dýrmætur sonur, eda eptirlætis barn? Því svo opt sem eg um hann tala, man eg ávallt (optar) til hans. Þess vegna kémst mitt hjarta vid, sakir hans, honum skal eg miskuna, segir Drottinn.

21. Reistu upp vegamerki, settu þér vørdur, taktu eptir gøtum, á þeim vegi, sem þú fer; kom aptur Israel, þú meya, kom til þessara þinna stada! 22. Hvad leingi viltu vera á hrakníngi, þú fráfallna dóttir! Drottinn skapar nýlundu í landinu: konan ver manninn.

23. Svo segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: hér eptir munu menn svo tala í Júdalandi og í þess stødum, þegar eg er búinn ad flytja þá herteknu heim aptur: „Drottinn blessi þig, bústadur réttlætisins, heilaga fjall!" 24. Og þar býr Júda og allir hans stadir í einu lagi, akuryrkjumenn og þeir sem hjarda gjæta. 25. Því eg endurnæri þá þreyttu og metta alla sorgbitna. 26. Eptir þetta vaknadi eg, og litadist um, og minn svefn hafdi verid mér inndæll.

27. Sjá! dagar koma, segir Drottinn, ad eg sái Israels hús og Júda hús med mannsádi og fénadarsádi. 28. Og eins og eg vakti yfir þeim, til þess ad uppræta þá, og sundurbrjóta og eydileggja og skémma og íllt ad gjøra: svo vil eg yfir þeim vaka til ad uppbyggja og gródursetja, segir Drottinn. 29. Á þeim tíma munu menn ei framar segja: „fedurnir hafa etid vínberja vísir, og tennur sonanna verda sljófar;" 30. heldur skal hvør og einn deya fyrir sínar yfirtrodslur, og hjá sérhvørjum manni, sem vísirinn etur, skulu tønnurnar sljófgast.

31. Sjá! dagar koma, segir Drottinn, ad eg skal gjøra nýann sáttmála vid Israels hús og Júda hús: 32. ekki eins og þann sáttmála sem eg gjørdi vid þeirra fedur, þá eg tók í þeirra hønd, til ad leida þá úr Egyptalandi, vid þá, sem brutu minn sáttmála, þótt eg væri þeirra herra, segir Drottinn; 33. heldur er þetta sá sáttmáli sem eg skal semja vid Israels hús eptir þessa sømu daga, segir Drottinn: eg legg mitt løgmál inní þá, og skrifa þad í þeirra hjarta, og eg skal vera þeirra Gud, og þeir skulu vera mitt fólk. 34. Og þeir munu ei framar kénna, hvør ødrum, og ekki einn bródir ødrum, og segja: lær þú ad þekkja Drottinn! því allir munu mig þekkja, smáir sem stórir, segir Drottinn: því eg mun fyrirgéfa þeirra misgjørd, og ekki framar hugsa til þeirra syndar. 35. Svo segir Drottinn, sem gjørdi sólina ad ljósi á deginum, og túnglsins og stjarnanna reglu, ad ljósi, á nóttunni, sá sem æsir hafid, svo þess bylgjur geysa, Drottinn herskaranna er hans nafn! 36. Ef þessi regla niðurleggst fyrir mér, þá skal og Israels ætt hætta ætíd ad vera þjód, fyrir mér.

37. Svo segir Drottinn: verdi himininn mældur uppi og grundvøllur jardarinnar ransakadur nidri, svo mun eg og forsmá alla Israels ætt, sakir alls þess, sem þeir hafa gjørt, segir Drottinn. 38. Sjá! dagar koma, segir Drottinn, ad stadurinn verdur byggdur Drottni (til heidurs) frá Hananeels turni, allt ad hornportinu, 39. og mælisnúran skal lengra fara, gagnvart, allt ad Garebshæd, og beygjast til

Góat; 40. og allur dalur líkanna og øskunnar, og plátsíð allt að Kedronslæk, allt að horni hrossa portsins, mót austri, skal vera Drottni helgað, það skal ekki framar upprætt verða né eydilagt til eilífdar.

## 32. Kapítuli.

Um akurkaupið og þess merkíngu.

1. Þetta er það orð sem kom til Jeremías frá Drottni, á 10da ári Sedekía, Júda Kóngs, það var hið 18da ár Nebúkadnesars. 2. En þá sat her Kóngsins af Babel um Jerúsalem, og Jeremías spámaður var innilokaður í forgarði fángahússins, sem er í Júda Kóngs húsi, 3. hvar Sedekías Júda Kóngur hafði hann innilokað með þessum ummælum: „því spáir þú og segir: Svo segir Drottinn: sjá! eg gef þessa borg í hönd Kóngsins af Babel, að hann vinni hana. 4. Og Sedekías Júda Kóngur mun ekki sleppa Kaldeumönnum úr hendi, heldur mun hann verða gefinn í hönd Kóngsins af Babel, og hans munnur mun tala við hans munn, og hans augu sjá hans augu; 5. og til Babel mun hann flytja Sedekía, og hann mun þar verða, þángað til eg vitja hans, segir Drottinn. Ef þér stríðið við Kaldeumenn, munuð þér einga gæfu hafa. 6. Þá mælti Jeremías: orð Drottins kom til mín, og sagði: 7. Sjá! til þín mun koma Hanameel, sonur Sallums, föðurbróður þíns, og segja: kaup þú minn akur í Anatot, því þú hefir innlausnarréttinn, að kaupa. 8. Svo kom Hanameel, sonur föðurbróður míns til mín, eptir orði Drottins, í forgarð fángelsisins, og mælti til mín: kaup akur minn í Anatot í Benjamínslandi, því þú hefir erfða og innlausnarréttinn, kaup handa þér! þá merkti eg að það var Drottins orð. 9. Og eg keypti akurinn af Hanameel syni föðurbróður míns í Anatot, og vog honum út gjaldið, 7 sikla (gulls) og 10 sikla silfurs. 10. Og skrifaði það á bréf, og innsiglaði það, og tók votta að, og vog gjaldið út á vog. 11. Og eg tók kaupbréfið það innsiglaða eptir rétti og siðum, og hið opna, 12. og fékk kaupbréfið Barúk, syni Nerías, sonar Mahaseia, fyrir augum Hanameels, frænda míns, og fyrir augum vottanna, sem skrifað höfðu undir kaupbréfið, og fyrir augum allra Júdamanna, sem sátu í forgarði fángahússins; 13. og bauð Barúk fyrir augum hinna sömu og mælti: 14. svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Guð: tak þessi bréf, þetta innsiglaða bréf, og það opna bréf, og legg þau í leirker svo þau varðveitist lengi. 15. Því svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Guð: enn nú skulu hús keypt verða í þessu landi, og akrar og víngarðar. 16. Og eg bað til Drottins, eptir að eg hafði fengið Barúk, syni Nerías, kaupbréfið, og mælti: 17. Æ! Herra Drottinn! sjá! þú hefir með þínum mikla mætti gjört himin og jörð, og með þínum útrétta armi, og þér er einginn hlutur um megn. 18. Þú gjörir miskun á þúsundum, og geldur skuld fedranna í skaut sonum þeirra eptir þá. Mikli, voldugi Guð, Drottinn herskaranna, er hans nafn, 19. mikill í ráði og máttugur í verkum, þú, hvörs augu standa opin yfir öllum vegum mannanna barna, til þess að gjalda einum og sérhvörjum eptir hans breitni og eptir ávexti hans athafna, 20. þú sem gjörðir teikn og undur í Egyptalandi, allt til þessa dags, við Ísrael og aðra menn, og gjörðir þér nafn eins og (það er) á þessum tíma; 21. og hefir flutt þitt fólk Ísrael úr Egyptalandi með teiknum og undrum og með sterkri hönd og með útréttum armi og með miklum skelfíngum, 22. og gafst þeim þetta land sem þú hafðir svarið þeirra fedrum, að gefa þeim, land sem flýtur í mjólk og hunángi; 23. og þeir komu og unnu það, en þeir hlýddu ei þinni raust og geingu ei í þínu lögmáli, allt

sem þú baudst þeim ad gjøra, gjørdu þeir ekki: þá létstu þeim mæta alla þessa ógjæfu. 24. Sjá, hervirkin (óvinanna) eru þegar komin ad borginni, til ad vinna hana, og hún mun géfin verda í hønd Kaldeumønnum, sem á hana herja med sverdi og húngri og drepsótt; og þad sem þú hefir talad, er skéd, og sjá, þú sjer þad. 25. Og samt hefir þú til mín sagt, Herra (alvaldi) Drottinn: kaup þér akurinn fyrir peníngа og tak votta ad, þóad borgin verdi géfin í hønd Kaldeumønnum.

26. Þá kom ord Drottins til Jeremía og sagdi: 27. Sjá, eg Drottinn er Gud alls holds, er mér nokkur hlutur um megn? 28. Því segir Drottinn svo: sjá, eg géf þessa borg í hønd Kaldeumanna og í hønd Nebúkadnesars, Kóngsins af Babel, ad hann vinni hana. 29. Og þeir Kaldeumenn sem á borgina herja, munu koma, og kveikja í borginni med eldi og brenna hana, og húsin, á hvørra þøkum þeir gjørdu Baal reik, og offrudu drykkjarfórn ødrum gudum, til þess ad módga mig. 30. Því Israels synir og Júda synir gjørdu ad eins þad sem íllt var fyrir mínum augum, í frá þeirra æsku árum; því Israelssynir egndu mig einúngis til med verkum sinna handa, segir Drottinn. 31. Því þessi borg var mér til reidi og heiptar frá þeim degi ad hún var bygd, allt til þessa dags, svo eg vil hafa hana burt frá mínum augum, 32. sakir alls þess illa, sem Israelssynir og Júdasynir hafa gjørt mér til módgunar, þeir, þeirra Kóngar, þeirra høfdíngjar, þeirra prestar, þeirra spámenn, og Júda menn og Jerúsalems innbúar. 33. Og þeir snéru vid mér bakinu en ekki andlitinu; frá því snemma morguns mentadi eg þá, en þeir heyrdu ekki, til ad taka mentaninni. 34. Og þeir settu sinn vidbjód (godin) í þad hús, sem nefnt var eptir mínu nafni, til ad saurga þad; 35. Og bygdu Baal hædir í dal Hinnomssona, til ad blóta Mólok sonum sínum og dætrum, sem eg hafdi ekki bodid þeim, og sem mér hafdi ekki komid í hug, ad menn adhefdust slíka svívirdíng, til ad tæla Júda (lýd) til syndar.

36. Og nú segir því Drottinn svo, Israels Gud, um þennann stad, um hvørn þér segid: hann verdur géfinn í hønd Kóngsins af Babel fyrir sverd, húngur og drepsótt: 37. sjá, eg heimti þá úr øllum þeim løndum, hvørt eg hefi hrakid þá í minni reidi og í minni glód, og í minni mikilli grimd, og leidi þá aptur á þennann stad, og læt þá búa óhulta; 38. Og þeir skulu vera mitt fólk, og eg vil vera þeirra Gud. 39. Og eg géf þeim þad hjarta og þá breitni, ad óttast mig ætíd, svo þeim vegni vel, og sonum þeirra eptir þá. 40. Og eg sem vid þá eilífan sáttmála, ad eg skal aldrei af láta ad gjøra þeim gott; og minn ótta legg eg í þeirra hjarta, ad þeir ekki frá mér víki. 41. Og þad skal vera mín gledi ad gjøra þeim gott, og trúlega ad gródursetja þá í þessu landi, af øllu mínu hjarta og af allri minni sálu. 42. Því svo segir Drottinn: eins og eg hefi leidt alla þessa miklu óhamíngju yfir þetta fólk, eins mun eg líka allt gott yfir þad leida, sem eg hefi því vidvíkjandi talad. 43. Og akur mun verda keyptur í þessu landi, um hvørt þér segid: audn er þad, manna- og fénadarlaust, þad verdur géfid í hønd Kaldeumanna. 44. Akra munu menn kaupa fyrir peninga, og skrifa á bréf, og innsigla, og taka votta ad, í Benjamíns landi, og í kríngum Jerúsalem og í Júda stødum, og í stødum fjallsins, og í stødum láglendisins, og í stødunum sudur frá; því eg mun flytja til baka þeirra ena herteknu, segir Drottinn.

## 33. Kapítuli.

Fyrirheit.

1. Og ord Drottins kom til Jeremía í annad sinn, medan hann enn nú var innilokadur í

forgardi myrkvastofunnar, og sagdi: 2. svo
segir Drottinn, sá sem gjörir þad, Drottinn,
sá sem myndar þad, til ad undirbúa þad,
Drottinn er hans nafn: 3. kalla þú til mín,
eg skal svara þér, og kunngjöra þér mikid og
óskiljanlegt sem þú veitst ekki. 4. Því svo
segir Drottinn, Ísraels Gud, um hús þessa
stadar, og um hús Júda Kóngs, sem nidur-
rifin verda, sakir hervirkjanna og sverdsins. 5.
Þeir koma híngad inn (í borgina) til ad strída
vid Kaldeumenn, og til ad fylla hana med lík-
um manna, sem eg felli í minni reidi, og í
minni grimd, sakir allrar þeirra vondsku, birgi
eg mitt auglit fyrir þessari borg: 6. Sjá!
eg legg vid borgina (hana) umbúdir og grædslu
medøl, og lækna þau (húsin) og veiti þeim mikinn
og stødugan frid. 7. Og eg flyt til baka
Júda herteknu, og Ísraels herteknu, og byggi
þá upp aptur eins og ádur (voru þeir). 8.
Og eg hreinsa þá af allri þeirra misgjørd,
med hvørri þeir hafa syndgad á móti mér, og
fyrirgéf allar þeirra yfirtrodslur, med hvørjum
þeir hafa syndgad á móti mér, og frá mér
fallid. 9. Og (Jerúsalem) mun verda mér
ad fagnadar nafni, til frægdar og lofs hjá øll-
um þjódum jardarinnar, sem spyrja munu allt
þad góda sem eg gjøri þeim, og þeir skulu
skélfast og hristast sakir alls þess góda, og sakir
alls þess fridar, sem eg mun veita þeim.

10. Svo segir Drottinn: hér eptir skal
heyrast á þessum stad, um hvørn þér segid:
„audn er hann, fólkslaus og fénadarlaus", í
Júda stødum og á Jerúsalems strætum, sem
nú eru eydiløgd, fólkslaus, innbúalaus, og fén-
adarlaus, 11. (þar skal heyrast) raust gled-
innar og raust gladværdarinnar, og raust brúd-
gumans, og raust brúdurinnar, og raust þeirra
sem þá segja: „þakkid Drottni herskaranna,
því gódgjarn er Drottinn, því eilíf er hans
nád", og þá fara þeir med þakkarfórn til
Drottins húss. Því eg skal flytja aptur til
baka landsins herteknu, (allt skal vera) sem
fyrri, segir Drottinn. 12. Svo segir Drott-
inn herskaranna: hér eptir mun á þessum stad,
sem ad er audn, fólks- og fénadarlaus, og í øll-
um kríngum liggjandi stødum, haglendi vera fyrir
hirdara sem láta þar saudi liggja; 13. í stød-
um fjallsins, í stødum láglendisins, í stødum
sudur frá, í landi Benjamíns, og í kríngum
Jerúsalem, og í Júda stødum, munu hér eptir
saudir fram hjá renna, vid hønd þess sem tel-
ur (þá), segir Drottinn.

14. Sjá! dagar koma, segir Drottinn, ad
eg efni þad góda ord, sem eg hefi talad um
Ísraels hús, og um Júda hús. 15. Á þeim
sømu døgum, og á sama tíma mun eg láta
Davíd blómgast réttlætis kvist (ágjætan son),
sem ydkar réttindi og réttvísi í landinu. 16.
Á þeim sømu døgum mun Júda lýdur vera
lánsamur, og Jerúsalem búa ugglaus. Og
þessu nafni mun hann nefnast: „Drottinn
vort réttlæti". 17. Því svo segir Drottinn:
Davíd skal aldrei vanta mann, sem sitji í há-
sæti Ísraels húss. 18. Og prestana og Le-
vítana skal ekki vanta mann frammi fyrir mér,
sem framberi brennifórn og tendri matoffrid og
annist um tilreidslu sláturfórnarinnar alla daga.

19. Og ord Drottins kom til Jeremías og
sagdi: 20. svo segir Drottinn: ef þér getid rask-
ad mínum sáttmála vid dagin, og mínum sátt-
mála vid nóttina, svo ad hvørki sé dagur né
nótt á sínum tíma: 21. þá skal og minn sátt-
máli vid minn þjón Davíd raskast, svo ad
hann hafi eingan nidja, er drottni á hans há-
sæti, og vid Levítana, prestana, mína þjóna.
22. Eins og himinsins her verdur ekki talinn,
og sandur sjáfarins ekki mældur, svo vil eg

V. 16. Drottinn vort réttlæti, adrir: Drottinn vor heill.

fjølga nidjum Davíds þénara míns, og Levít-
unum sem mér þjóna.
23. Og ord Drottins kom til Jeremía, og
sagdi: 24. sjer þú ekki hvad þetta fólk talar,
og segir: þeim tveimur ættum, sem Drottinn
útvaldi, hefir hann burtskúfad, og þeir forsmá
mitt fólk sakir þess, svo þad er ekki framar
fólk í þeirra augum. 25. Svo segir Drott-
inn: hafi eg ekki sett fastann minn sáttmála
vid dag og nótt, tilskipun himins og jardar:
26. svo mun eg útskúfa nidjum Jakobs og
nidjum Davíds, míns þénara, svo eg ekki fram-
ar velji af hans nidjum drottnara yfir Abra-
hams, Ísaaks og Jakobs ætt, því eg skal flyt-
ja heim aptur þeirra herleiddu og miskuna þeim.

## 34. Kapítuli.

Spádómur um Sedekías. Um lausn þræla og ambátta.

1. Þad ord, sem kom til Jeremía frá
Drottni, þegar Nebúkadnesar, Kóngur í Babel,
og allur hans her og øll Kóngsríki landsins, hans
herradæmis, og allar þjódir herjudu á Jerúsal-
em og kríngumliggjandi stadi, þá hann sagdi:
2. Svo segir Drottinn, Ísraels Gud: far og
seg til Sedekía, Júda Kóngs, og mæl til hans:
svo segir Drottinn: sjá! eg géf þessa borg í
hønd Kóngsins af Babel, ad hann brenni hana
med eldi. 3. Og þú munt ei komast undan
hans hønd, heldur munt þú verda gripinn, og
í hans hønd géfinn, og þín augu munu sjá
augu Kóngsins af Babel, og hans munnur
mun tala vid þinn munn, og til Babel muntu
koma. 4. Heyr samt ord Drottins, Sedekías,
Júda Konúngur! svo segir Drottinn um þig:
þú skalt ei deya fyrir sverdi, 5. í fridi muntu
deya; og bál munu menn gjøra þér, líkt báli
þinna fedra, þeirra fyrri Konúnga, sem voru
á undan þér, og menn munu yfir þér harma,
(og segja): æ Herra! því þad ord hefi eg
talad, segir Drottinn.

6. Og Jeremías, spámadur, taladi vid Se-
dekías, Júda Kóng, øll þessi ord í Jerúsalem.
7. En her Kóngsins af Babel herjadi á Jerú-
salem, og á Júda stadi, sem eptir voru ordnir,
á Lakis og Aseka, því þessir voru, sem sterk-
ar borgir, medal Júda stada eptir (óunnir).

8. Þad ord sem kom frá Drottni til Jere-
mía, eptir ad Sedekías hafdi gjørt sáttmála vid
allt fólkid í Jerúsalem, ad kunngjøra þeim frelsi,
9. ad hvør einn skyldi géfa frelsi þræli sínum og
hvør sinni ambátt, hebreskum manni og hebr-
eskri konu, og einginn Gydíngur skyldi þvínga
til vinnu sinn bródur. 10. Og allir høfdíng-
jarnir hlýddu því, og allt fólkid sem inn hafdi
geingid sáttmálann, ad þeir, hvør fyrir sig,
gjæfu frelsi þræli sínum, og hvør einn ambátt
sinni, og þvíngudu þau ei framar til þjónustu;
þeir hlýddu, og gáfu þau laus. 11. En þeim
snérist hugur snemma, og heimtu aptur til sín
þrælana og ambáttirnar, sem þeir høfdu géfid
frelsi, og þjádu, sem þræla og ambáttir.

12. Þá kom ord Drottins til Jeremía frá
Drottni, og sagdi: 13. svo segir Drottinn Ís-
raels Gud: eg gjørdi sáttmála vid ydar fedur,
þá eg flutti þá burt úr Egyptalandi, úr þræl-
dóms húsinu, og sagdi: 14. ad sjø árum lidn-
um skulud þér géfa lausann, hvør einn sinn bród-
ur, þann hebreska sem selur sig þér; og hann
skal þjóna þér í 6 ár, svo skaltu sleppa hon-
um frá þér. En ydar fedur hlýddu mér ekki,
og løgdu ei eyrun vid. 15. En þér snérud
ydur nýlega, og gjørdud hvad rétt var fyrir
mínum augum, svo ad hvør einn bodadi frelsi
sínum náúnga, og þér sømdud sáttmála fyrir
mér í húsinu, sem nefnt er eptir mínu nafni.
16. En svo hafid þér snúid ydur aptur, og
vanhelgad mitt nafn, og þér hafid, hvør og
einn tekid aptur sinn þræl og hvør einn sína am-
bátt, sem þér høfdud frelsi géfid, eptir þeirra laung-

un, og hafid kúgad þau, til ad vera ydar þræla og ambáttir.

17. Því segir Drottinn svo: þér hafid ekki hlýdt mér ad boda frelsi, hvør einn sínum bródur til handa, og hvør einn til handa sínum náúnga: sjá! eg boda ydur til handa frelsi, (og leysi ydur) handa sverdinu, drepsóttinni og húngrinu, og sel ydur til misþyrmíngar øllum Kóngsríkjum jardarinnar. 18. Og eg gjøri þá menn, sem yfirtroda minn sáttmála, sem ekki gjøra fullnustu ordum míns sáttmála, hvørn þeir sømdu fyrir mínu augliti, líka nautinu, sem þeir hlutudu í tvo parta, og geingu á milli þessara stikkja. 19. Høfdíngjana í Júda og høfdíngjana í Jerúsalem, hirdmennina og prestana, og allt landsfólkid, sem geingu á milli stikkjanna nautsins. 20. Og eg sel þá í hønd þeirra óvinum, og í hønd þeirra sem sækjast eptir þeirra lífi, og þeirra líkamir skulu verda æti himinsins fuglum og merkurinnar dýrum. 21. Og líka skal eg géfa Sedekía Júda Kóng og hans høfdíngja í hønd þeirra óvina, og í hønd þeirra sem sækjast eptir þeirra lífi, og í hønd herlidsins Kóngsins af Babel, sem nú er frá ydur farid. 22. Sjá! eg býd, segir Drottinn, og flyt þá aptur til þessarar borgar, ad þeir herji á hana, og vinni hana, og brenni hana med eldi, og eg gjøri Júda stadi ad audn, hvar einginn býr.

## 35. Kapítuli.

Fagurt dæmi Rekabitanna sett til fyrirmyndar.

1. (Þetta er) þad ord sem kom til Jeremía frá Drottni á tíma Jójakims, Jósíasonar, Júda Kóngs, þá hann sagdi: 2. Gakk til Rekabita ættarinnar og tala vid þá og leid þá í Drottins hús, í eina stúkuna, og géf þeim vín ad drekka. 3. Og eg tók Jasenía, son Jeremía, sonar Habasinía, og hans brædur, og alla hans syni, og alla ætt Rekabítanna, 4. og fór med þá í hús Drottins, í stúku sona Hanans, sonar Jedalía, gudsmannsins, sem er hjá stúku høfdíngjanna, fyrir ofan stúku Maseia, sonar Sallums, dyravørdsins. 5. Og eg setti fyrir syni Rekabita ættarinnar skálar, fullar af víni og staup, og sagdi vid þá: drekkid vín! 6. og þeir svørudu: vér drekkum ekkért vín; því Jónadab, sonur Rekabs, vor ættfadir, hefir bodid oss og sagt: þér skulud ekkért vín drekka, hvørki þér né ydar synir ad eilífu, 7. og ekkért hús skulud þér byggja, og eingu kornsædi sá, eingan víngard planta og eiga; heldur skulud þér búa í tjøldum alla ydar æfi, svo þér lifid lengi í landinu hvar þér búid. 8. Og vér hlýdum raust Jónadabs, sonar Rekabs, vors ættfødurs í øllu, sem hann baud oss, svo vér drekkum ekkért vín, alla vora æfi, hvørki vér, né vorar konur, né vorir synir, né vorar dætur, 9. svoad vér ekkért hús byggjum oss til íbúdar, og høfum hvørki víngarda né akurlønd, né sád. 10. Og vér búum í tjøldum, og hlýdum, og gjørum allt, sem Jónadab, vor ættfadir, baud. 11. Og þad skédi, þá Nebúkadnesar Kóngur af Babel, kom inní landid, svo søgdum vér: komum, látum oss flýa undan her Kaldeumanna og undan her Sýrlendskra; og svo búum vér í Jerúsalem.

12. Þá kom ord Drottins til Jeremía og sagdi: 13. svo segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: far og seg til Júda manna og til Jerúsalems innbúa: viljid þér ekki bendíngu taka (héraf) ad hlýda mínum ordum? segir Drottinn. 14. Ord Jónadabs, sonar Rekabs, eru haldin, þau sem hann baud sínum sonum, ekkért vín ad drekka, og þeir drekka ekkért vín, allt til þessa dags, því þeir hlýda bodum síns ættfødurs. Og eg hefi til ydar talad frá því snemma morguns og þér hafid ekki hlýdt mér. 15. Og eg sendi til ydar alla mína þjóna, spámennina, frá því snemma morguns, og sagdi: snúi þó hvør=

einn frá sínum vonda vegi, og bætid ydar verk og gángid ei eptir ødrum gudum, til ad þjóna þeim, svo skulud þér vera í landinu, sem eg hefi géfid ydur og ydar fedrum; en þér løgdud ekki vid eyrun og heyrdud mig ekki. 16. Já, synir Jónadabs, sonar Rekabs, halda þad bodord síns ættfødurs, sem hann gaf þeim, en þetta fólk hlýdir mér ekki. 17. Þar fyrir segir Drottinn svo, Gud herskaranna, Israels Gud: sjá! eg leidi yfir Júda og yfir Jerúsalems innbúa alla þá ógjæfu sem eg hefi talad þeim til handa, af því eg hefi talad til þeirra, og þeir hafa ekki gégnt, og kallad til þeirra og þeir hafa ekki ansad.

18. Og vid Rekabita ættina sagdi Jeremías: svo segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: fyrir þad ad þér hlýddud bodi Jónadabs ydar ættfødurs, og héldud øll hans bodord, og gjørdud eptir øllu sem hann ydur baud: 19. sakir þess, segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: Jónadab Rekabsson, skal aldrei vanta mann, sem fyrir mér standi, alla tíma.

## 36. Kapítuli.

*Jeremía spádómar uppskrifadir, lesnir, brendir og aptur uppskrifadir.*

1. Á fjórda ári Jójakims, Jósíasonar, Júda Kóngs, kom þetta ord til Jeremía, frá Drottni, er hann sagdi: 2. tak þér bókfell, og skrifa þar á øll þau ord sem eg hefi vid þig talad, vidvíkjandi Israel og Júda og øllum þjódum, frá þeim tíma, þá eg (fyrst) taladi vid þig, frá Jósía tíma, allt til þessa dags. 3. Líklega mun Júda hús heyra alla þá ógjæfu sem eg hef í hug ad senda þeim, svo þeir snúi sér; hvør og einn frá sínum vondu vegum, svo ad eg fyrirgéfi þeirra misgjørd, og þeirra synd.

4. Þá kalladi Jeremías Baruk, Nería son, og Barúk skrifadi af munni Jeremía øll þau ord Drottins, sem hann hafdi talad til hans, á bókfellid. 5. Og Jeremía baud Baruk, og mælti: mér erhaldid í húsi, eg gét ekki farid í Drottins hús: 6. far þú og les af þessu bókfelli, þad sem þú hefir skrifad af mínum munni, ord Drottins, á hátídisdeginum; og les þau líka fyrir eyrum allra af Júda, sem úr þeirra stødum koma. 7. Líklega audmýkja þeir sig med grátbeidni fyrir Drottni, og snúa sér, hvør og einn frá sínum vondu vegum; því mikil er reidin og grimdin, sem Drottinn hefir hótad þessu fólki. 8. Og Baruk Nería son gjørdi, øldúngis eins og Jeremías spámadur baud, ad lesa í bókinni, Drottins ord í Drottins húsi.

9. Og þad skédi á 5ta ári Jójakims Jósíasonar Júda Kóngs, í 9da mánudi, ad þeir kunngjørdu føstu fyrir Drottni, allt fólkid í Jerúsalem, og allt fólkid, sem kom til Jerúsalem úr Júda stødum. 10. Þá las Barúk í bókinni ord Jeremía í Drottins húsi, í stúku Gemaría Safanssonar, skrifarans, í þeim efra forgardi, í inngángi þeirra nýju dyra Drottins húss, fyrir eyrum alls fólksins. 11. Og sem Mika Gemaría son, Safans sonar, heyrdi øll Drottins ord í bókinni: 12. svo gékk hann í Kóngsins hús, í stofu skrifarans, og sjá! þar sátu allir høfdíngjarnir, Elísama, skrifarinn, og Delaja, sonur Semaja, og Elnatan, Akborsson, og Gemarja, Safansson, og Sedekía Hananíason, allir høfdíngjarnir, 13. Og Mika sagdi þeim øll þau ord, sem hann hafdi heyrt, eins og Barúk hafdi lesid þau í bókinni fyrir fólksins eyrum. 14. Þá sendu allir høfdíngjarnir til Barúks Jehudi, sonar Nethanía, sem var son Selemaja, sonar Kúskis, og søgdu: þá bók, í hvørri þú last fyrir fólksins eyrum, skaltu taka þér í hønd og koma! og svo tók Barúk Neríason bókina sér í hønd, og kom til þeirra. 15. Og þeir søgdu vid hann: set þig,

og les fyrir vorum eyrum! Og Barúk las
fyrir þeirra eyrum. 16. Þá skédi það, er
þeir heyrdu øll ordin, (litu þeir) skélkadir hvør
til annars, og søgdu vid Barúk: þetta allt
verdum *vér ad láta Kónginn vita.* 17.
Og Barúk spurdu þeir og søgdu: seg oss þó,
hvørnig hefir þú skrifad øll þessi ord af hans
munni? 18. Og Barúk sagdi til þeirra: med
sínum munni sagdi hann mér øll þessi ord,
og eg skrifadi þau í þessa bók med bleki. 19.
Þá søgdu høfdíngjarnir vid Barúk: far, og
fel þig, samt Jeremía, svo einginn viti hvar
þid erud.

20. Og þeir geingu til Kóngsins í forgard-
inn, en bókina étu þeir vera í stofu Elísama,
skrifarans, og létu Konúng vita allt þetta.
21. Þá sendi Kóngurinn Jehudi, ad sækja
bókina, og hann sókti hana í stofu Elísama,
skrifarans, og Jehudi las hana fyrir eyrum
Kóngsins, og fyrir eyrum allra høfdíngjanna,
sem stódu hjá Kónginum. 22. En Kóngurinn
bjó í vetrarsalnum í 9da mánudi, og glædur
brunnu frammi fyrir honum. 23. En sem
Jehudi hafdi lesid þrjú eda fjøgur blød, skar
hann (Kóngurinn) þau í sundur, med penna-
hníf, og kastadi þeim á eldinn í glódarkérinu,
þángad til øll bókin var brunnin á eldi glódar-
kérsins. 24. Og hvørki skélkadist Kóngurinn
né hans þénarar, sem heyrdu øll þessi ord, og
ekki heldur rifu þeir sín klædi. 25. Líka hafdi
Elnatan og Delaja og Gemaría bedid Kóng-
inn um ad brenna ekki bókina, en hann gaf
þeim eingan gaum. 26. Og Kóngurinn baud
Jerameel, syni Hamaleks, og Seraja, syni As-
ríels, og Selamía, syni Abdeels, ad sækja Barúk,
skrifarann, og Jeremía spámann. En Drott-
inn fól þá. 27. Og ord Drottins kom til
Jeremía, eptir ad Kóngur hafdi brent bókina,
og þau ord, sem Barúk hafdi skrifad af hans
munni, og sagdi: 28. tak þér adra bók aptur,
og skrifa þarí øll þau fyrri ord, sem stódu í
fyrri bókinni, þeirri sem Jójakim, Júda Kóng-
ur brendi. 29. Og vidvíkjandi Jójakim, Júda
Kóngi, skaltu segja: svo segir Drottinn: þú
*hefir brent bókina, og haft þessi ummæli:*
*því hefir þú í hana skrifad:* Kóngurinn af
Babel mun koma og eyda þetta land og af-
má úr því menn og fénad? 30. Því segir
Drottinn svo, vidvíkjandi Jójakim Júda Kóngi:
Hann skal eingan (son) hafa sem sitji í Da-
víds hásæti, og hans líkami skal liggja útkast-
adur fyrir hitanum á dagin, og kuldanum á
nóttunni. 31. Og eg skal refsa honum, og
hans nidjum, og hans þjónum fyrir þeirra mis-
gjørd, og leida yfir þá og yfir Jerúsalems innbúa,
og yfir Júda menn, alla þá ógjæfu, sem eg
hefi hótad þeim, en þeir heyrdu ekki. 32.
Og Jeremías tók adra bók, og fékk hana Bar-
úk, syni Nería, skrifaranum, og hann skrifadi í
hana af munni Jeremía, øll ord bókarinnar,
sem Jójakim, Júda Kóngur, brendi á eldi;
og þaraðauki var møргum ordum bætt vid,
líkum hinum.

## 37. Kapítuli.

*Jeremías er settur í vardhald.*

1. Og Sedekías, sonur Jósía, vard Kon-
úngur í stadin fyrir Jekonía Jójakimsson, hvørn
Nebúkadnesar, Kóngurinn af Babel, gjørdi ad
Kóngi í Júdalandi. 2. Og hvørki hann, né
hans þénarar, né landsfólkid, gégndi ordum
Drottins, sem hann taladi fyrir munn Jere-
mía spámanns.

3. Og Sedekía Kóngur sendi Júkal Sele-
míason og Sefanía, Maaseíason, prestinn, til
Jeremía spámanns, og sagdi: bid þó Drottinn
fyrir oss, vorn Gud! 4. En Jeremías gékk
(frí) út og inn medal fólksins, og menn høfdu
ei sett hann í fángélsi. 5. Og Faraós her var
lagdur af stad úr Egyptalandi, og Kaldeu-

menn, sem sátu um Jerúsalem, høfdu feingid spurn af þeim, og voru farnir frá Jerúsalem.

6. Þá kom ord Drottins til Jeremía spámanns og sagdi: 7. svo segir Drottinn, Israels Gud: seg þú svo Júda Kóngi, sem sendi ydur til mín, ad spyrja mig: sjá! herlid Faraós, sem út er farid ydur til hjálpar, mun aptur hverfa í sitt land, Egyptaland. 8. Og Kaldeumenn munu aptur koma, og herja á þennann stad, og vinna hann, og brenna med eldi. 9. Svo segir Drottinn: svíkid ekki sjálfa ydur, ad þér ætlid, Kaldeumenn fara í burtu frá oss, því þeir munu ekki fara burt. 10. Því þó þér feldud allann her Kaldeumanna, sem vid ydur strídir, og medal þeirra væru (ad eins) eptir í gégn lagdir menn hvør einn í sínu tjaldi, svo mundu þeir upprísa og brenna þennann stad med eldi. 11. Og þad skédi, þá Kaldeumanna her fór frá Jerúsalem undan her Faraós, 12. þá gékk Jeremías burt úr Jerúsalem, til þess ad ferdast í Benjamíns land, og fá þadan sína hlutdeild, medal fólksins. 13. Og hann var í Benjamíns hlidi, og þar var líka umsjónarmadur nokkur, ad nafni Jería, sonur Selemía, sonar Hananía: og hann lét handtaka Jeremía spámann, og hafdi þessi ummæli: þú ætlar ad strjúka til Kaldeumanna. 14. Og Jeremías svaradi: þad er ekki satt, eg ætla ekki til Kaldeumanna; en Jería gaf því aungann gaum, og lét handtaka Jeremía og færa hann høfdíngjunum. 15. Og høfdíngjarnir urdu gramir vid Jeremía, og børdu hann og settu hann í vardhald, í húsi Jónatans, skrifara; því þeir høfdu gjørt þad ad fángelsi.

16. En sem Jeremías var kominn í dyblyssuna og í fángahúsid, og hafdi setid þar lángan tíma; 17. þá sendi Kóngur Sedekías og lét sækja hann. Og Kóngurinn spurdi hann í sínu húsi heimuglega og mælti: Er til ord frá Drottni? og Jeremías sagdi: þad er! og mælti: þú munt géfinn verda í hønd Kóngsins af Babel. 18. Og Jeremías sagdi vid Sedekía Kóng: hvad hefi eg syndgad móti þér og móti þínum þénurum og móti þessu fólki, ad þér hafid sett mig í fángelsi? 19. Og hvar eru ydar spámenn, sem spádu og søgdu: ekki mun Kóngurinn af Babel koma móti ydur, og á móti þessu landi? 20. Og heyr nú samt, minn herra Konúngur! Lát mig audmjúklega grátbæna þig, flyt mig ekki aptur í hús Jónatans, skrifara, ad eg ekki deyi þar! 21. Þá baud Sedekías, ad menn skyldu láta Jeremía, í forgard vardhaldsins, og þeir gáfu honum daglega braud frá bakarastrætinu, þángad til allt braud var uppgeingid í borginni. Og svo var Jeremías í forgardi vardhaldsins.

## 38. Kapituli.

Um hrakníngu Jeremía.

1. Og þeir heyrdu, Sefatia, Mattansson, og Gedalia Pashúrsson, og Jukal, Selemiason, og Pashúr, Malkiason, þau ord, sem Jeremías taladi vid fólkid, þá hann mælti: 2. svo segir Drottinn: hvør sem í þessum stad dvelur, mun deya fyrir sverdi og húngri og drepsótt; en hvør sem fer úr stadnum, til Kaldeumanna, mun lifa, og honum mun sál hans vera herfáng, ad hann lifi. 3. Svo segir Drottinn: þessi stadur verdur géfinn í hønd her Konúngsins af Babel og hann mun vinna hann. 4. Þá søgdu høfdíngjarnir vid Kónginn: þessi madur sé þó deyddur! því med þessu gjørir hann linar høndur strídsfólksins, sem eptir er ordid í þessum stad, og hendur alls fólksins, þegar hann talar fyrir því slíkum ordum; því þessi madur leitar ei þess, sem er þessu fólki til heilla, heldur þess ógjæfu. 5. Og Sedekías Kóngur sagdi: sjá! hann er í ydar hønd, því ekkért megnar Kóngurinn móti ydur. 6. Þá tóku þeir Jeremía, og køstudu honum í

(vatns) grifju Malkía, sonar Hammeleks, sem
var í forgardi vardhaldsins, og létu Jeremía
nidur í festi, en í grifjunni var ekki vatn, heldur ad
eins bleita, og Jeremías søkk nidur í bleituna.
7. Og Ebedmelek, sá blálendski, hirdmadur
nokkur, sem var í húsi Kóngsins, fékk ad heyra,
ad menn hefdu kastad Jeremía í grifjuna; en
Kóngur sat í Benjamíns hlidi. 8. Þá gékk
Ebedmelek úr Kóngs húsinu, og taladi vid Kon-
úng og mælti: 9. Minn herra Konúngur! illa
hafa þessir menn gjørt allt, sem þeir hafa
gjørt, vid Jeremía spámann, hvørjum þeir køst-
udu í grifjuna; og snart deyr hann þar af
sulti, því ekkért braud er framar til í stadn-
um. 10. Og Kóngurinn baud Ebedmelek
blámanni, og mælti: taktu med þér hédan
30 menn og drag Jeremías spámann upp
úr grifjunni ádur enn hann deyr. 11. Þá
tók Ebedmelek mennina med sér, og gékk í Kóngs-
ins hús, undir féhirdsllurnar, og tók þadan
gamla leppa og gamlar tuskur, og lét þetta
nidur til Jeremía í grifjuna í festi. 12. Og
Ebedmelek, blámadur, mælti til Jeremía; legg
þá gømlu leppa og tuskur undir lidamót þinna
handa, undir festina. Og Jeremías gjørdi svo.
13. Og þeir drógu Jeremía í festinni upp úr
grifjunni, og Jeremías var í forgardi vard-
haldsins.

14. Þá sendi Kóngurinn Sedekías, og lét
sækja til sín Jeremía spámann, í þann þridja
inngáng í Drottins hús, og Kóngurinn sagdi
vid Jeremía: eg ætla ad spyrja þig nokkurs,
dyl ekkért fyrir mér! 15. Og Jeremías mælti
til Sedekía: deydir þú mig ekki, ef eg segi þér
þad? og þó eg rádleggi þér eitthvad, gégnir þú
mér ekki. 16. Þá sór Sedekías Kóngur Jere-
mía heimuglega, og mælti: svo sannarlega sem
Drottinn lifir, sem í oss hefir skapad þessa sál!
eg deydi þig ekki og géf þig ekki í hønd þess-
ara manna, sem umsitja þitt líf! 17. Og Jere-
mías sagdi vid Sedekía: svo segir Drottinn,
herskaranna Gud, Israels Gud: ef þú geingur
út til herforíngja Kóngsins af Babel, svo muntu
lifa, og þessi stadur verdur ekki brendur í eldi,
og þú, og þitt hús munt lífi halda. 18. En
gángir þú ekki út til fyrirlidanna Kóngsins af
Babel, svo verdur þessi stadur géfinn í hønd
Kaldeumønnum, og þeir brenna hann í eldi, og
þú munt ei heldur sleppa þeim úr hendi. 19.
Og Sedekías Kóngur sagdi vid Jeremías: eg
hefi beig af Júdum sem strokid hafa til Kaldeu-
manna, ad eg verdi seldur þeim í hønd og þeir
misþyrmi mér. 20. Og Jeremías sagdi: menn
munu ei framselja þig. Hlýd þó raust Drott-
ins eptir því sem eg hefi vid þig talad, svo mun
þér vel vegna, og þú munt frelsa þitt líf; 21.
En ef þú færist undan ad gánga út, svo er
þetta þad ord, sem Drottinn hefir mér opinber-
ad: 22. sjá, allar þær konur, sem eptir eru
ordnar í húsi Júda Kóngs, munu verda burt-
fluttar, til herforíngja Kóngsins af Babel, og
þær munu segja: „Þínir vinir hafa táldregid
þig, og fengid yfirhønd; þínir fætur sukku í
forædid, þeir viku til baka". 23. Og allar
þínar konur og øll þín børn munu menn færa
Kaldeumønnum, og ekki munt þú heldur sleppa
undan þeirra hendi; heldur muntu gripinn verda
af hønd Kóngsins af Babel, og verda því oll-
andi, ad þessi stadur verdur brendur í eldi. 24.
Og Sedekía sagdi vid Jeremía: einginn madur
skal vita af þessu tali, svoad þú deyir ekki! 25.
Og ef ad høfdíngjarnir heyra ad eg hafi vid þig
talad, og koma til þín og segja vid þig: láttu
oss vita, hvad þú taladir vid Kónginn, dyl
ekkért fyrir oss, ad vér ekki deydum þig, og þad
sem Kóngurinn taladi vid þig; 26. svo seg til
þeirra: eg grátbændi Kónginn audmjúklega ad
láta mig ekki aptur í hús Jónatans, til ad deya
þar. 27. Og allir høfdíngjarnir komu til
Jeremía, og spurdu hann, og hann sagdi þeim

söguna líkt þeim ordum, sem Kóngurinn hafdi bodid honum. Þá þögdu þeir, og slepptu honum; því ekki var þetta ordid hljódbært. 28. Og svo var Jeremías í forgardi vardhaldsins, allt ad þeim degi þá Jerúsalem var tekin.

## 39. Kapítuli.

Jerúsalem unnin, hvornig Jeremías reiddi af. Fyrirheit gefid Ebedmelek.

1. Og þad skédi, þá Jerúsalem var unnin, (á níunda ári Sedekía, Júda Kóngs, í 10da mánudi, kom Nebúkadnesar, Kóngurinn af Babel, og allur hans her fyrir Jerúsalem, og settist um hana; 2. á 11ta ári Sedekía, í 4da mánudi, 9da dag mánadarins, var brotist inn í stadinn) 3. Þá komu allir fyrirlidar Kóngsins af Babel, og tóku sér fasta stödu vid midhlidid, Nergal Sareser, Samgar-Nebó, Sarsekim, yfirbodi hirdmannanna, Nergal Sareser, ædsti prestur, og allir hinir yfirmenn Kóngsins af Babel. 4. Og þad skédi, þá Sedekías Júda Konúngur og allir stríðsmennirnir sáu þá, svo flúdu þeir og fóru um nóttina úr borginni, á veginn hjá jurtagördum Kóngsins, um hlidid milli þeirra tveggja múra, og stefndu útá vellina. 5. Þá elti her Kaldeumanna þá, og þeir nádu Sedekía á völlunum hjá Jerikó, og tóku hann og fluttu til Nebúkadnesars, Kóngs í Babel, til Ribla í landinu Hemat, og hann sagdi upp dóm yfir honum. 6. Og Kóngurinn af Babel slátradi sonum Sedekía fyrir hans augum í Ribla, og öllum Júda adli slátradi Kóngurinn af Babel líka. 7. Og Sedekía blindadi hann á augunum, og batt hann fjötrum, og flutti til Babel, 8. og Kóngsins hús og fólksins hús, brendu Kaldeumenn med eldi, og Jerúsalems múrveggi rifu þeir nidur. 9. Og leifar fólksins, þad eptirordna í stadnum, og þad sem hafdi til þeirra flúid, leifar fólksins, þá eptirordnu, flutti Nebúsaradan, sá ædsti höfdíngi vid herinn, burt til Babel. 10. En þá umkomulitlu af fólkinu, sem ekkért höfdu, lét Nebúsaradan, sá efsti herforíngi, eptir vera í Júda landi, og gaf þeim á sama tíma víngarda og akra.

11. Og Nebúkadnesar, Babels Kóngur, baud, vidvíkjandi Jeremía, fyrir hönd Nebúsaradans, þess efsta herforíngja, og sagdi: 12. tak hann og haf auga á honum, og gjör honum ekkért til meins, heldur far med hann eins og hann segir til. 13. Þá sendi Nebúsaradan, sá efsti herforíngi, og Nebúsasban, sá efsti hirdmadur, og Nergal-Sareser, sá ædsti prestur, og allir höfdíngjar Kóngsins af Babel, 14. þeir sendu, og létu sækja Jeremía í forgard vardhaldsins, og afhendtu hann Gedalía, syni Ahikams, sem var sonur Safans, til ad flytja hann í hans hús. Og svo var hann medal fólksins.

15. Og ord Drottins kom til Jeremía, þá hann sat í forgardi vardhaldsins, og sagdi: 16. far og seg til Ebedmeleks, Blámanns, og seg: svo segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: sjá, eg læt mitt ord koma yfir þennann stad, til ógjæfu, og ekki til góds, og þad mun ské fyrir þínum augum á sama tíma, 17. en eg skal bjarga þér á sama tíma, segir Drottinn, og þú skalt ekki komast í manna höndur, þeirra sem þú hrædist; 18. því bjarga skal eg þér, og fyrir sverdi skalt þú ekki falla, og þitt líf skal verda þér herfáng, fyrst þú treystir mér, segir Drottinn.

## Spádómar og Saga Jeremía, eptir Jerúsalems eydileggíngu Kap. 40—45.

### 40. Kapítuli.

*Jeremías fær lausn. Um Gedalía.*

1. Þad ord sem kom til Jeremía frá
Drottni, eptir ad Nebúsaradan, sá efsti hers-
høfdíngi, hafdi gefid hann lausann í Rama.
Þegar hann lét sækja hann, var hann bundinn
fjøtrum, med øllum herteknum frá Jerúsalem
og Júda, sem fluttir voru til Babel. 2. Og
sá efsti hershøfdíngi lét sækja Jeremía og sagdi
vid hann: Drottinn þinn Gud hefir ógjæfu
talad móti þessum stad, 3. og Drottinn lét
koma, og gjørdi, eins og hann hafdi talad, því
þér høfdud syndgad móti Drottni, og ekki
hlýdt hans raust, og svo kom slíkt yfir ydur.

4. Og sjá nú! eg leysi nú fjøtrana af þín-
um høndum. Viljir þú koma med mér til
Babel, svo kom, og eg skal hafa auga á þér;
en þókknist þér ekki ad fara med mér til Bab-
el, svo lát þad vera: sjá! allt landid stendur
þér opid, hvørt sem þér líkar ad fara, hvørt
sem þú vilt fara, þángad máttu fara. 5. En er
hann hvørgi fór, (sagdi hann): svo far til
Gedalía, Ahikams sonar, Safans sonar, sem
Kóngurinn af Babel hefir sett yfir Júda stadi,
og vertu hjá honum medal fólksins, eda far,
hvørt sem þú vilt fara. Og sá ædsti herfor-
íngi fékk honum farar-efni og gáfur og lét
hann frá sér. 6. Og svo kom Jeremías til
Gedalía Ahikamssonar, til Mispa, og var hjá
honum medal fólksins, sem eptir var í landinu.

7. Og þegar herforíngjarnir, sem útá land-
inu voru, þeir og þeirra menn, heyrdu, ad
Kóngurinn af Babel, hafdi sett Gedalia Ahi-
kamsson yfir landid og hafdi afhendt honum
menn og konur og børn þeirra minniháttar manna
í landinu, þeirra, sem ekki voru burt fluttir til
Babel: 8. þá komu þeir til Gedalia, til Mispa,
nefnil. Ismael Netaníason, og Jónahan Jóna-
tansson, synir Kareas, og Seraja, sonur Tanhú-
mets, og synir Efai, Netofatita, og Jesanía,
sonur Maakati, þeir og þeirra menn. 9. Og
Gedalia, sonur Ahikams, sonar Safans, sór þeim
eid og þeirra mønnum, og sagdi: óttist ekki ad
vera Kaldeumønnum undirgéfnir, verid í land-
inu, og þjónid undir Kónginn af Babel, svo
mun ydur vel vegna. 10. Og sjá! eg verd í
Mispa, til ad þjóna Kaldeumønnum, sem til
vor koma, en uppskérid þér vín og ávexti og
vidsmjør, og látid í ydar ílát, og búid í ydar
stødum, sem þér hafid feingid. 11. Og allir
Júdar sømuleidis, sem voru í Móabslandi og
medal Ammonssona og í Edomslandi, og sem
voru í øllum løndunum, heyrdu, ad Kóngurinn
af Babel hafdi eptirskilid Júdum leifar, og
sett yfir þá Gedalia Ahikamsson, sem var son-
ur Safans; 12. þá komu aptur allir Júdar úr
øllum stødum, hvørt þeir høfdu hrakist, og
komu í Júdaland, til Gedalia í Mispa, og upp-
skáru ríkuglega vín og ávexti.

13. En Jóhanan, sonur Kareas, og allir
herforíngjar, sem voru í héradinu, komu til Ge-
dalía í Mispa, 14. og søgdu vid hann: veitst
þú líka, ad Baalis, Kóngur Ammonssona, hef-
ir sendt Ismael Netaniason, til ad slá þig í
hel? En Gedalia Ahikamsson, trúdi þeim ekki.
15. Og Jóhanan, sonur Kareas, taladi vid Ge-
dalia heimuglega í Mispa og sagdi: láttu mig
fara og vinna á Ismael, syni Netania, og eing-
inn madur skal þad vita. Hví skyldi hann
drepa þig, svo ad øllum Júdum, sem safnast
hafa til þín, verdi tvístrad, og leifar Júdanna
fyrirfarist. 16. En Gedalia, Ahikamsson, sagdi
vid Jóhanan, Kareasson: Gjør þetta ekki, því
þú talar lýgi um Ismael.

## 41. Kapítuli.

Gedalía er drepinn. Ismael flýr.

1. Og þad skédi á sjøunda mánudi, þá kom Ismael sonur Netania, sonar Elisama, af Konúnglegri ætt, og einn af stórmennum Konúngs, og 10 menn med honum, til Gedalia, Ahikamssonar, til Mispa, og þeir neyttu matar í Mispa, hvør med ødrum. 2. Þá tók Ismael sig til, sonur Netania, og þeir 10 menn, sem med honum voru, og unnu á Gedalia, syni Ahikams Safanssonar, med sverdi, og deyddu hann, þann sama sem Kóngurinn af Babel hafdi sett yfir landid; 3. og alla Júda líka, sem hjá honum voru, hjá Gedalia í Mispa, og Kaldeumenn, sem þar voru, strídsmennina, sló Ismael í hel. 4. Og annars dags, eptir ad Gedalia var deyddur í Mispa, ádur enn nokkur madur vissi, 5. komu menn frá Sikem, frá Síló og frá Samaríu, 80 menn, med skornu skéggi og rifnum klædum og med ripsum á líkamanum, í høndum þeirra (var) matoffur og reykélsi, til ad færa þad til Drottins húss. 6. Þá gékk Ismael, sonur Netania þeim á móti frá Mispa, og grét þar sem hann gékk; og sem hann mætti þeim, sagdi hann vid þá: komid til Gedalia Ahikamssonar! 7. En sem þeir voru komnir midt inní stadinn, myrdti Ismael, sonur Netania, þá, (og kastadi þeim) í grifju, hann og þeir menn, sem med honum voru. 8. En 10 menn voru medal þeirra, sem søgdu vid Ismael: drep oss ekki! því vér høfum fólgid fé útá landinu, hveiti, bygg, vidsmjør og hunáng. Þá hætti hann og drap þá ekki med þeirra brædrum. 9. En sú grifja, í hvørja Ismael kastadi líkømum þeirra drepnu, ásamt Gedalia, er sú sama, sem Asa Kóngur gjørdi, sakir Baesa Israels Kóngs (1 Kgb. 15, 22), hana fyllti Ismael, sonur Netania, med þeim í hel slegnu. 10. Og Ismael flutti allt annad fólkid til Mispa, Kóngs dæturnar og allt fólkid, sem eptir var, til Mispa, þad sem Nebúsaradan fyrirlidi hersins, hafdi afhendt Gedalía Ahikamssyni, þad flutti Ismael Nethaníason herrekid burt, og fór, til þess ad gánga yfir til Ammons sona.

11. En sem Jóhanan, sonur Kareas, og allir herforíngjarnir sem med honum voru, heyrdu øll þau illskuverk, sem Ismael, sonur Netanía, hafdi adhafst: 12. tóku þeir alla (sína) menn, og løgdu af stad til ad berjast vid Ismael Nethaníason; og þeirra fundur vard vid þad mikla vatn, hjá Gíbeon. 13. En er þad fólk, sem var med Ismael, sá Jóhanan Kareas son, og alla herforíngjana sem med honum voru, gladdist þad; 14. og allt þad fólk, sem Ismael hafdi komid med frá Mispa, snéri frá, og gékk í lid med Jóhanan Kareas syni. 15. En Ismael, sonur Nethanía, fór undan Jóhanan, med átta menn, og flúdi til Ammons sona. 16. Þá tók Jóhanan, sonur Kareas, og allir herforíngjarnir, sem med honum voru, allt þad annad fólk, sem hann hafdi nád af Ismael Netanía syni, frá Mispa, eptir ad hann hafdi drepid Gedalía, Ahikamsson, menn, strídsfólk, konur og børn og hirdmenn, er hann flutti aptur til Gíbeon. 17. Og þeir fóru og dvøldu í herbergi Kimhams, nálægt Betlehem, til ad komast til Egyptalands, 18. undan Kaldeumønnum, því vid þá voru þeir hræddir, af því ad Ismael, sonur Netanía, hafdi drepid Gedalía Ahikamsson, hvørn Babels Kóngur hafdi sett yfir landid.

## 42. Kapítuli.

Jeremías rædur frá førinni til Egyptalands.

1. Og allir herforíngjarnir og Jóhanan, sonur Kareas, og Jesanía, sonur Hosaja, og allt fólkid, svo smár sem stór, gengu fram, 2. og søgdu vid Jeremía Spámann: Leyf oss audmjúklega ad grátbæna frammi fyrir þér, og bid Drottinn þinn Gud fyrir oss, fyrir allar

þessar leifar; því fáir 'erum vér eptir ordnir
af mörgum, eins og þín augu sjá oss: 3. ad
Drottinn þinn Gud opinberi oss, hvörn veg
vér skulum fara, og hvad vér eigum ad gjöra.
4. Og Jeremía Spámadur sagdi til þeirra:
gott og vel! eg skal gjöra þad, eg skal bidja
Drottinn ydar Gud, eins og þér óskid, og eg
skal opinbera ydur allt sem Drottinn svarar
ydur, og aungvu fyrir ydur leyna. 5. Og
þeir sögdu vid Jeremía: Drottinn sé móti oss
sannur og áreidanlegur vottur, ef vér ei gjörum
öldúngis eins og Drottinn þinn Gud býdur
þér, oss vidvíkjandi! 6. Þad veri gott eda
íllt, raustinni Drottins vors Guds, sem vér
sendum þig til, viljum vér hlýda, svo ad oss
vel vegni, þegar vér hlýdnumst raustinni vors
Guds.
7. Og eptir tíu daga kom ord Drottins til
Jeremía. 8. Og hann kalladi Jóhanan, son
Kareas, og alla herforíngjana, sem med honum
voru, og allt fólkid, smáan sem stóran, 9. og
mælti til þeirra: svo segir Drottinn, Ísraels
Gud, sá sem þér sendud mig til, ad eg bæri
fyrir hann ydar audmjúka grátbeidni: 10. ef
þér búid kyrrir í þessu landi, svo vil eg ydur
uppbyggja, og ekki nidurrífa, og eg vil ydur
gródursetja og ekki uppræta, því eg ydrast þess
illa sem eg hefi gjört ydur. 11. Verid óhrædd-
ir vid Kónginn af Babel, sem þér erud hrædd-
ir vid; verid ekki hræddir um ydur fyrir hon-
um! segir Drottinn, því eg er hjá ydur til ad
hjálpa ydur, og frelsa ydur af hans hendi.
12. Og eg skal útvega ydur miskun, ad hann
aumkist yfir ydur og láti ydur koma til baka
í ydvart land. 13. En ef þér segid: vér vil-
um ekki vera í þessu landi, svo ad þér ekki hlýdid
raust Drottins ydar Guds, 14. og segid: nei,
vér viljum heldur fara til Egyptalands, svo
vér sjáum ekkért stríd, og heyrum ekki lúdra
þyt, og sveltum ekki af braud (skorti), og þar
viljum vér vera. 15. Nú þá, heyrid því ord
Drottins, þér Júda leifar! svo segir Drottinn
herskaranna, Ísraels Gud: ef ad þér snúid
ydar andliti þá leid, ad fara til Egyptalands,
og komid þángad til ad stadnæmast þar: 16.
svo mun sverdid sem þér erud hræddir vid, ná
ydur þar í Egyptalandi; og þad húngur, sem
þér hafid beig af, skal vera á hælum ydar til
Egyptalands, og þar munud þér deya. 17.
Allir þeir sem snúa sínu andliti á þá leid, ad
fara til Egyptalands, til ad stadnæmast þar,
þeir munu deya fyrir sverdi, húngri og drep-
sótt; og einginn þeirra mun eptir verda, og
sleppa undan ógjæfunni, sem eg yfir þá leidi.
18. Því svo segir Drottinn herskaranna, Ísra-
els Gud: eins og mín reidi og mín grimd hefir
úthellt sér yfir Jerúsalems innbúa, svo skal mín
grimd úthellast yfir ydur, ef þér farid til E-
gyptalands; og þér skulud verda ad bölvun,
(eiginl: ad eydi), og ad vidbjód, og ad formæl-
íngu, og ad smán, og ekki aptur sjá þennan stad.
19. Drottinn hefir til ydar talad, þér Júda
leifar! farid ekki til Egyptalands; vita skulud
þér, ad eg í dag hefi þad vitnad fyrir ydur;
20. því þér táldragid ydur til tjóns, ydar
sálir; því þér hafid sendt mig til Drottins ydar
Guds, og sagt: bid Drottinn, vorn Gud, fyrir
oss, og opinbera oss allt, sem Drottinn vor
Gud segir, og vér viljum þad gjöra. 21. Og
nú hefi eg opinberad ydur þad; en þér hlýd-
id ekki raust Drottins ydar Guds, og öllu sem
hann baud mér, ydur vidvíkjandi. 22. Og
nú skulud þér vita, ad þér munud deya á þeim
stad, hvört ydur lángar ad fara, til þess þar
ad stadnæmast, fyrir sverdi, fyrir húngri, og
fyrir drepsótt.

## 43. Kapítuli.

Júdar fara til Egyptalands. Spádómur um þad, ad Egyptaland muni verda unnid.

1. Og þad skédi, þá Jeremías hafdi út-

talad vid allt fólkid, øll ord Drottins, þeirra Guds, sem Drottinn þeirra Gud hafdi bodid, þeim vidvíkjandi, øll þessi ord: 2. þá mælti Asaría sonur Hósaja, og Jóhanan sonur Kareas, og allir frekjufullir menn, þeir søgdu vid Jeremía: þú talar lýgi; Drottinn, vor Gud, hefir ei bodid þér og sagt: farid ekki til Egyptalands til ad stadnæmast þar; 3. heldur æsir Barúk, Nerejason, þig móti oss, til þess ad géfa oss í hønd Kaldeumanna, svo þeir deydi oss, og flytji oss til Babel. 4. Og ekki hlýddi Jóhanan, Kareasson, og allir herforíngjarnir, og allt fólkid, Drottins raust, ad vera í Júda landi. 5. Og Jóhanan, sonur Kareas, og allir herforíngjarnir tóku allar Júda leifar, sem aptur voru komnar frá øllum þjódum, hvørt þeir høfdu hrakist, til ad stadnæmast í Júda landi: 6. menn og konur og børn, og Kóngs dæturnar, og allar þær sálir, sem Nebúsaradan foríngi hersins, hafdi eptirskilid hjá Gedalía, syni Ahikams, sonar Safans, og líka Jeremía spámann, og Barúk, son Nería, 7. og komu í Egyptaland, því þeir hlýddu ekki raust Drottins, og komu til a) Takfanes.

8. Og ord Drottins kom til Jeremía í Takfanes, og sagdi: 9. tak þér í hønd stóra steina, og fel þá í leirnum í tígulofninum, sem er vid dyr Faraós hýss í Takfanes, fyrir Júdanna augum, 10. og seg til þeirra: svo segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: sjá! eg sendi og sæki Nebúkadnesar, Kónginn af Babel, minn þjón, og set hans hásæti yfir þessa steina, sem eg hefi falid, og yfir þá mun hann útbreida sinn (dýra) hásætis dúk; 11. og hann mun híngad koma og slá Egyptaland; deyda þá sem daudi er ætladur; hertaka þá, sem hertakast eiga, fyrirfara med sverdi, þeim sem þad er ætlad. 12. Og eg mun kveikja eld í húsum Egyptalands guda, og hann mun brenna

V. 7. *a*. Stadur, annars nefndur Dafne, vid Níl.

þá og burtflytja, og hann mun vefja um sig Egyptalandi, eins og hirdir vefur um sig sínum møttli, og fara þadan med fridi. 13. Og myndastólpana í Bet-Semes í Egyptalandi, mun hann sundurbrjóta, og brenna med eldi hús Egyptalands guda.

## 44. Kapítuli.

Hótunar ræda, stílud til Júdanna í Egyptalandi.

1. Þad ord sem kom til Jeremía, vidvíkjandi øllum Júdum er bjuggu í Egyptalandi, sem þá bjuggu í Migdol og Takfanes, og í Nof, og í landinu Patros, þá er hann sagdi:

2. Svo segir Drottinn herskaranna, Israels Gud: þér hafid sjed alla þá óhamíngju sem eg leiddi yfir Jerúsalem og yfir alla Júda stadi, og sjá! þeir eru rústir enn nú, og eingin býr í þeim: 3. søkum vondsku, sem þeir adhøfdust, til ad módga mig, ad þeir geingu og gjørdu reyk fyrir ødrum gudum, og þjónudu þeim, sem þér ekki þekktu, hvørki þeir, né þér, né ydar fedur. 4. Og eg sendi til ydar alla mína þjóna, spámennina, frá því snemma dags, og sagdi: gjørid ei slíka vidurstygd, sem eg hata; 5. en þeir hlýddu ekki, og løgdu ekki vid eyrun, ad þeir hvyrfu aptur frá sínni vondsku, og gjørdu ei reyk fyrir ødrum gudum. 6. Þá úthellti sér mín grimd og mín reidi, og brann í Júda stødum og á Jerúsalems strætum, svo þeir urdu ad rústum og audn, eins og á þessum tíma (er skéd). 7. Og nú segir Drottinn herskaranna, Israels Gud, svo: því adhafist þér svo mikid íllt ydur til tjóns, ad þér upprætid frá ydur úr Júda, mann og konu, barn og brjóstmylkíng, svo þér látid eingar leifar af ydur eptir verda, 8. ad þér módgid mig med verkum ydar handa; ad þér gjørid reyk ødrum gudum í Egyptalandi, hvørt þér erud komnir, til ad stadnæmast þar, svo þér frá ydur upprætid (allt),

og ad þér verdid ad bølvan og smán medal allra jardarinnar þjóda? 9. Hafid þér gleymt illgjørdum ydar fedra, og illgjørdum Júda Kónga, og illgjørdum þeirra kvenna, og ydar illgjørdum og illgjørdum ydar kvenna, sem þeir adhøfdust í Júda landi, og á Jerúsalems strætum? 10. Ekki hafa þeir audmýkt sig allt til þessa dags, og ugga ei um sig, og gánga ei í mínu løgmáli og í mínum setníngum, sem eg hefi géfid þeim og þeirra fedrum.

11. Því segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud, svo: sjá! eg sný mínu andliti móti ydur, til ógjæfu og upprætíngar alls Júda (lýds). 12. Og eg skal burtsvipta leifunum af Júda, sem snéru sínu andliti á þá leid, ad fara til Egyptalands, til þess ad stadnæmast þar, og þar skulu allir afmádir verda; í Egyptalandi skulu þeir falla, fyrir sverdi og húngri farast, smár sem stór; fyrir sverdi og húngri skulu þeir tortínast, og skulu verda ad bølvan, ad vidbjód og formælíngu og smán. 13. Og eg straffa þá sem búa í Egyptalandi, eins og eg straffadi Jerúsalem, med sverdi, med húngri og med drepsótt. 14. Og einginn mun undan komast og eptir verda af Júda leifum, sem komu í Egyptaland, til ad stadnæmast þar og hverfa (svo) aptur í Júdaland, hvar þeirra hjarta lángar til aptur ad koma, til þess þar ad búa, því þeir munu ekki aptur koma, nema þad skyldu vera (einstakir) flóttamenn.

15. Og allir mennirnir svørudu Jeremía, þeir sem vel vissu ad þeirra konur gjørdu reyk fyrir ødrum gudum, og allar konur sem þar stódu í miklum hóp, allt fólkid, sem bjó í Egyptalandi og í Patros og søgdu: 16. Þad sem þú hefir talad vid oss í nafni Drottins, þar í gégnum vér þér ekki; 17. heldur munum vér gjøra allt sem vor munnur hefir talad, ad gjøra reyk himinsíns drottníngu a), og færa dreypifórn, eins og vér høfum gjørt, vér og vorir fedur, vorir Konúngar og vorir høfdíngjar í Júdastødum og á Jerúsalems strætum, þá vér høfdum nægd brauds, og oss gékk vel, og vér sáum einga óhamíngju. 18. En sídan vér létum af ad gjøra reyk fyrir himinsíns drottníngu og færa henni dreypifórnir, skortir oss allt og vér førumst fyrir sverdi og húngri. 19. Og þó ad vér (søgdu konurnar) gjørum reyk fyrir himinsíns drottníngu og færum henni dreypifórn, ætla vér, á laun vid menn vora, tilreidum henni køkur, henni til dýrkunar, og færum henni dreypifórn?

20. Þá mælti Jeremías til alls fólksins, til manna og kvenna, og til alls fólksins sem honum hafdi svarad, og sagdi: 21. Mun Drottinn ei hafa hugsad til og lagt uppá hjartad, reykgjørd ydar, sem þér høfdud í frammi í Júdastødum og á Jerúsalems strætum; þér og ydar fedur, ydar Konúngar og ydar høfdíngjar og alþýdufólk? 22. Og Drottinn gat ekki leingur þolad þad vegna vondsku ydar athæfis, vegna þess vidbjóds sem þér ydkudud; og svo vard ydar land ad audn og vidbjód og bølvun, og einginn býr þar eins og nú (stendur), 23. sakir þess þér gjørdud reyk (fyrir hjágudum), og syndgudud móti Drottni, og hlýddud ekki raust Drottins og geingud ekki í hans løgmáli og í hans setníngum og í hans vitnisburdum, því hitti ydur þessi ógjæfa, eins og á þessum tíma er skéd.

24. Og Jeremías mælti til alls fólksins og til allra kvennanna: heyrid ord Drottins, þér allir af Júda, þér sem erud í Egyptalandi! 25. Svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud: þér og ydar konur, þér talid med ydar munni, og med ydar høndum framkvæmid þér þad (sem þér talid); þér segid: halda viljum vér vor heit, sem vér gjørdum, ad reykja fyr-

V. 17. *a.* Túnglid eda kveldstjarnan.

ir himinsins drottníngu og færa henni dreypi-
fórn: já, haldid ad eins ydar heit, og efnid
ad eins ydar heit! 26. Heyrid þá ord Drott-
ins, þér allir af Júda, þér sem búid í Egypta-
landi! sjá, eg sver vid mitt nafn hid mikla,
segir Drottinn: mitt nafn skal ekki nefnt verda í
munni eins manns af Júda í øllu Egyptalandi,
er svo segir: svo sannarlega sem Drottinn lif-
ir! 27. sjá! eg vaki yfir þeim, til íllS og ekki
til góds, og allir af Júda, sem í Egyptalandi
eru, skulu farast fyrir sverdi og húngri, þángad til
þeir eru afmádir. 28. Og þeir, sem sloppnir
undan sverdinu, komast burt aptur úr Egypta-
landi, fáir ad tølu, inní Júdaland, og allar
leifar af Júda, sem komid hafa til Egyptalands til
ad dvelja þar, þeir skulu fá ad reyna hvørs
ord rætast, mín eda ydar. 29. Og þad sé
ydur til marks, segir Drottinn, ad eg refsa
ydur á þessum stad, svo þér vitid ad mín ord
móti ydur rætast ydur til ógjæfu. 30. Svo
segir Drottinn: sjá! eg gef Faraó Hofra, Kóng-
inn af Egyptalandi, í hønd hans óvinar, og í
hønd þeirra sem sækjast eptir hans lífi, eins
og eg gaf Sedekía, Júda Kóng, í hønd Nebúkad-
nesars, Kóngs af Babel, hans óvinar, sem sókt-
ist eptir hans lífi.

## 45. Kapítuli.

Fyrirheit til Barúks.

1. Þad ord, sem Jeremías spámadur tal-
adi til Barúks Neríasonar, þegar hann skrifadi øll
þessi ord í eina bók, af Jeremía munni, á
fjórda ári Jójakims Jósíasonar, Júda Kóngs,
er hann sagdi: 2. Svo segir Drottinn, Israels
Gud, til þín, Barúk! 3. Þú segir: „vei mér!
ad Drottinn hefur bætt á mig sorg ofan á
þjáníng, eg styn mig módann og ró finn eg
ekki." 4. Svo seg til hans: svo segir Drott-
inn: sjá! þad sem eg hefi byggt, þad ríf eg
sjálfur nidur, og þad sem eg hefi gródursett,
þad uppræti eg sjálfur, þad er allt landid.
5. En þú girnist mikid fyrir þig, óska þess
ekki! því sjá! eg leidi ógjæfu yfir allt hold;
en þér gef eg þína sál ad herfángi allstadar,
hvørt sem þú fer.

## Spádómar Jeremía, vidvíkjandi útlendum þjódum, 46—51. Kapitula.

## 46. Kapítuli.

Nebúkadnesar vinnur Faraó Nekó. Kémur med her í Egyptaland.

1. Þad ord Drottins sem kom til Jeremía
spámanns vidvíkjandi þjódunum, 2. vidvík-
jandi Egyptalandi, herlidi Faraó Nekós, Kóngs
af Egyptalandi, sem stód vid ána Frat, hjá
Karkemis, sem Nebúkadnesar, Kóngur í Babel,
sigradi, á 4da ári Jókjakims Jósía sonar,
Júda Kóngs.

3. Tilreidid buklara og skildi og farid í stríd!
4. Spennid hestana fyrir og setjist upp a), reid-
menn! Skipist nidur med hjálmum, hvessid spjót-
in, farid í brynjurnar. 5. Hví sje eg þá hug-
lausa hopa, og þeirra kappar eru sundurmard-
ir, og snúast á flótta og líta ekki vid? skélfíng
allt um kríng, segir Drottinn. 6. Ekki kémst sá
fljóti undan, og ekki getur sá sterki fordad sér;
nordur frá, á bøkkum árinnar steypast þeir og falla.
7. Hvør er sá sem kémur þar, eins og áin Níl;
eins og røst sé, fer hennar vatn í bylgjum? 8.
Sá Egyptski kémur eins og áin Níl og líkt
straumi belgir vatnid, og segir: eg vil áfram,
hylja landid, vinna tjón stødunum og þeirra
innbúum! 9. Komid hestar, og ædid vagnar,
og áfram fari kapparnir, Mórlendskir og þeir

V. 3. a. Í vagnana eda á hestana.

af Pút, sem bera skildi, og Lydíumenn sem fara með boga og spenna (þá)! 10. En hinn sami dagur er Drottni herskaranna, (þeim alvalda) hefnda dagur, að hann hefni sín á sínum óvinum; og sverðið svelgir og mettar sig, og verður drukkið af þeirra blóði; þetta er þess alvalda Drottins herskaranna slátrunar fórn í norðursíns landi, hjá ánni Frat. 11. Far til Gilead, þú júngfrú, Egyptalands dóttir, og sæk smyrsli! forgéfins safnar þú læknismeðölum, eingin lækníng hjálpar þér! 12. Þjóðirnar heyra þína skömm, og jörðin er full af þínu ópi, því kappi steypist ofaná kappa, og báðir falla í einu lagi.

13. Það orð sem Drottinn talaði við Jeremía spámann, að Nebúkadnesar, Babels Kóngur skyldi koma, til að herja á Egyptaland. 14. Kunngjörið í Egyptalandi og kunngjörið í Migdol, og kallið í Nof og Takfanes! segið: set þig í stand, útbú þig, því sverðið etur allt, í kríngum þig! 15. Því eru þínir foríngjar dottnir? þeir gátu ei staðið, því Drottinn lagði þá við velli. 16. Hann lætur marga steypast, sá eini fellur yfir annann, og þeir segja: upp! látum oss hverfa til vors fólks; heim í vort land, undan því ofbeldissama sverði! 17. Þeir kalla þar: Faraó, Egyptalands Kóngur, er farinn, hann hefir sleppt tækifærinu. 18. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Konúngurinn, herskaranna Drottinn, er hans nafn: líkur Tabor meðal fjallanna, og líkur Karmel við sjóinn kémur hann. 19. Þú sem býr hér, Egyptalands dóttir, gjör þér ferðatýi, því Nof verður eydd og brend, og einginn býr þar.

20. Egyptaland er rétt vænn kálfur; slátrarinn kémur; að norðan kémur hann. 21. Stríðsmála menn þessa (lands), mitt í því þeir eru sem alikálfar; já, líka snúa þeir baki við, flýa í einu lagi, standa ekki við; því þeirra ólánsdagur kémur yfir þá, þeirra refsíngar dagur. 22. Raust þeirra fer áfram sem höggormur, þegar þeir brjótast fram með makt og koma með axir yfir landið, eins og þeir sem höggva við. 23. Þeir höggva upp þess skóg, segir Drottinn, því um hann verður ekki farið; því þeir eru fleiri enn eingispretturs, og þeirra er ekkért tal. 24. Til skammar verður Egyptalands dóttir, géfin í hönd þjóðinni að norðan. 25. Drottinn herskaranna Israels Guð, segir það: sjá, eg refsa Ammon a) af No, og Faraó og Egyptalandi og þess Guði og þess Kóngi, Faraó og þeim sem honum treysta. 26. Og eg géf þá þeim í hönd, sem eptir þeirra lífi sækjast, og í hönd Nebúkadnesars, Kóngs af Babel, og í hönd hans þjóna; en þar eptir skal Egyptaland byggt vera eins og á fyrri tíðum, segir Drottinn.

27. En vert þú óhræddur, minn þjón Jakob, og skélkast þú ekki, Israel! því sjá, úr fjærlægð hjálpa eg þér, og þínum niðjum úr þeirra herteknÍngar landi, og Jakob kémur heim aptur rólegur og í glöðu skapi, og óhræddur. 28. Óttast ekki, minn þjón Jakob, segir Drottinn, því eg er með þér; því útaf mun eg gjöra við allar þjóðir, til hvörra eg hefi hrakið þig, en eg gjöri ekki út af við þig. Og eg aga þig með sannsýni, þó gét eg ekki látið þig óhegndann.

## 47. Kapítuli.

Sigur Kaldeumanna á Filisteum.

1. Orð Drottins, sem kom til Jeremía spámanns, viðvíkjandi Filisteum, áður enn Faraó vann Gasa. 2. Svo segir Drottinn: sjá! vatn belgir upp í norðrinu og verður að vatnsfalli og flóir yfir landið og það sem í landinu er, staði og þeirra innbúa. Menn hljóða og allir landsins innbúar æpa. 3. Af dunum hófatrampsins þeirra öflgu hesta, af gný þeirra

V. 25. *a.* Aðsli Guð Egyptskra.

vagna og af glamri hjólanna, snúa fedurnir sér
ekki til sonanna, sakir magnleysis handanna, 4.
vegna dagsins, sem kémur, ad afmá alla Fili-
stea, ad uppræta Týrus og Sídon, alla adra
lidsmenn, því Drottinn afmáir Filistea, leifar
eyarinnar Kaftor. 5. Gasa verdur skøllótt,
Askalon er nidurrifin, (og) hennar annad lág-
lendi. Hvad leingi viltu þig a) spyrja? 6. Ó
vei! sverd Drottins! hvad leingi viltu ei hvíld
taka? drag þig til baka í þínar skeidar, vertu
rólegt og kyrrt! 7. En hvørnig gétur þú hvíld
tekid, þegar Drottinn hefir þér skipan géfid?
Hann hefir sendt þad móti Askalon og móti
sjáfar-strøndinni.

## 48. Kapítuli.

*Móabs eydilegging. (Sjá Esajas. Kap. 15 og 16).*

1. Móti Móab. Svo segir Drottinn her-
skaranna, Israels Gud: vei yfir Nebó, því
þad (land) er eydt! svívirdilega er Kirjataim
unnin, Mirgab er skammarlega nidurrifin. 2.
Móabs frægd er farin; í Hesbon hugsa menn
íllt móti hinni sømu: „komid, og látum oss
uppræta hana medal þjódanna“! Einnegin,
þú Madmen, munt afmád verda, þig eltir sverd-
id! 3. Óp géllur frá Horonaim yfir eydi-
legging og miklu tjóni! 4. Móab er sundur-
marid (land), þess úngbørn veina. 5. Á stígn-
um frá Lúkit, stígur vein yfir vein. Því frá
brekkunni hjá Horonaim heyrist ángistar ópid:
6. flýid, bjargid ydar lífi, og verid líkir þeim
nøktu á eydimørku! 7. Því af því þú reiddir
þig á þinn afla og þinn aud, skaltu líka verda
unninn, og afgud þeirra Kamos (1 Kgb. 11, 7.)
kémst í vesæld, hans prestar og høfdíngjar í
einu lagi. 8. Og eydileggjarinn kémur yfir
sérhvørn stad, og einginn sleppur; dalurinn verd-
ur skémdur, og sléttlendid eydilagt, eins og
Drottinn hefir talad. 9. Fáid Móab vængi,
því fljúgandi mun hann fara, og hans stadir
verda ad audn, innbúalausir. 10. Bølvadur
sé sá sem gjørir verk Drottins sviksamlega, og
bølvadur sá sem synjar sínu sverdi um blód!

11. Móab hefir verid spakur frá æsku, og
legid á sínum dreggjum, og honum var aldrei
hellt úr einu íláti í annad, og í eymd komst
hann aldrei: því hafdi hann ætíd sama smekk,
og hans lykt var hin sama. 12. Sjá! þess
vegna, segir Drottinn: dagar koma, ad eg sendi
honum kjallaramenn, sem hagga um þad (hans
vín) og tæma hans ílát og mølva hans
brúsa. 13. Og til skammar verdur Móab og
Kamos, (þeirra afgud) eins og Israels hús er
til skammar ordid søkum b) Betel sem þeir
treystu. 14. Hvørnig gétid þér sagt: vér er-
um hetjur og øruggir menn til strídsᐧ? 15.
Móabs (land) er eydilagt, og þess stadir stíga
upp (í reyk), og kjarna þess úngu manna er
slátrad, segir Konúngurinn, Drottinn herskar-
anna er hans nafn. 16. Móabs tjón þokast
nær, og hans ógjæfa, hradar sér mikid. 17.
Vorkénnid því, allir þess nábúar, og allir sem
þekkid þad! segid: hvørnig brotnadi sú øfluga
veldisspíra, sá dýrdlegi sproti!

18. Stíg nidur frá dýrdinni og sit í þurk-
inum, Dibons dóttir, þú sem þar hefir búid!
því Móabs eydileggjari, stefnir ad þér, nid-
urrífur þín vígi. 19. Gakk framm á veginn
og sjá! þú sem býr í Aróer! spyr flóttamenn-
ina, og þá sem undan hafa komist, seg: hvad
er skéd?

20. Móab er svívirdtur, því (hann) er
eydilagdur; æpid og hljódid, kunngjørid þad
hjá c) Arnon, ad Móab er eydilagdur! 21.
Og dómur er geinginn yfir þad flata land, yfir
Holon og yfir Jasa og yfir Mefaat, 22. og

---

V. 5. *a.* Nispa: eins og menn gjørdu í sorg. V. 13. *b.* Í Betel var gull kálfur sá, sem Jeróbóam lét dýrka. V. 20. *c.* Vatnsfall á landamerkjum Móabita. 4 Mósb. 21, 13.

yfir Díbon og yfir Nebo og yfir Bet-Diblataim, 23. og yfir Kirjataim, og yfir Bet-Gamul og yfir Bet-Maon, 24. og yfir Kerjot og yfir Bosra, og yfir alla stadi Móabslands, nálæga og fjarlæga. 25. Búid er ad høggva hornin af Móab, hans armur er brotinn, segir Drottinn.

26. Gjørid hann drukkinn, því mót Drottni hóf hann sig, svo hann géfi sig upp, spúandi, og verdi sjálfur ad athlæi. 27. Eda var Ísrael þér ekki ad athlæi? Var hann gripinn med þjófum, ad þú skyldir hrista yfir honum høfudid, svo opt sem þú um haun taladir? 28. Farid burt úr stødunum og búid í klettunum, Móabs innbúar, og verid eins og dúfan sem hreidrar sig andspænis í holudyrum!

29. Vér høfum ordid varir vid Móabs drambsemi, hans mikla dramb, hans stolt og drambsemi og yfirlæti og grobb. 30. Eg þekki, segir Drottinn, hans dramblæti; hans verk samsvara ekki hans grobbi. 31. Því græt eg yfir Móab, og kveina yfir øllum Móab, yfir mønnunum í Kir-Heres andvarpa menn. 32. Meir enn a) Jaeser grét, græt eg yfir þér, Sibma vínvidur! þínir vínkvistir fóru yfir hafid, allt til hafsins frá Jaeser nádu þeir, eydileggjarinn kémur inní þinna ávaxta hirdíngu, og vínuppskéru. 33. Gledinni og fagnadarlátum er burt svipt frá Karmel og Móabs landi; á víninu í pressunni gjøri eg enda, menn troda ekki framar (vínþrúgu) med vínuppskéru fagnadarópi; ópid er ekki óp. 34. Frá þeirri æpandi Hesbon til Eleale, til Jahas, láta þeir sína raust glymja; frá Sóar til Horonaim, þrévetru kvígunnar; því líka eru Nimrims vøtn eydiløgd. 35. Eg gjøri útaf vid Móab, segir Drottinn, vid þá sem fórna á hædunum og gjøra reyk fyrir sínum gudum. 36. Því kveinar mitt hjarta eins og hljódpípa yfir Móab, og yfir Kir-Heres mønnum kveinar mitt hjarta líkt hljódpípu; sakir þess faungin missast sem þeir høfdu ad dregid. 37. Hvørt eitt høfud er hárlaust, hvørt skégg er skorid, á øllum høndum rispur, og um mjadmirnar sekkur. 38. Á øllum Móabs þøkum og á hans strætum er eintómt kvein; því eg hefi brotid Móab eins og kér, sem ekki líkar, segir Drottinn. 39. Hvørsu er hann moladur! æpid! hvørsu snýr Móab sneyptur sér undan! ad athlæi og ofbodi er Móab ordinn øllum sínum nábúum.

40. Því svo segir Drottinn: sjá! sem ørn flýgur hann (óvinurinn), og útbreidir sína vængi yfir Móab. 41. Kerjot er tekinn, og vígin unnin, og Móabs hetjur eru til sinnis á sama degi, eins og kona í barnsneyd. 42. Og Móab mun verda afmádur medal þjódanna, því móti Drottni hefir hann risid. 43. Skélfíng, grifja og snara kémur yfir þig, Móabs innbúi. 44. Hvør sem flýr undan skélfíngunni, fellur í grøfina; og hvør sem kémst uppúr grøfinni, festir sig í snørunni. Því eg læt yfir þá, yfir Móab, koma, þeirra hegníngar tíma, segir Drottinn.

45. Í Hesbons skugga standa þeir flúnn magnlausir, því eldur geingur útaf Hesbon, og logi midt úr Síon og etur Móabs hérød, og hans kúpur (harksins sona) strídsmannanna. 46. Vei þér, Móab! Kamoss fólk er farid! því þínir synir verda herteknir burt fluttir, og þínar dætur í fángelsi. 47. Þó skal eg seinna meir flytja heim aptur Móabs fánga, segir Drottinn. Híngad ad Móabs dómur.

## 49. Kapituli.

Spádómur um eydileggíng Ammons, Edoms (sjá Obadias) Damaskus, Kedar og Hasor, samt Elam.

1. Móti sonum Ammons. Svo segir Drottinn: hefir þá Ísrael einga syni, eda hefir hann

V. 32. a. 4 Mósb. 21, 32. V. 33. Ópid ekki óp; adr: heróp, ekki haustkirkju óp.

einga erfíngja? Hvørsvegna hefir Malkam a) tekid undir sig Gad og látid sitt fólk búa í hennar stødum? 2. Sjá þessvegna, dagar koma, segir Drottinn, þá eg skal láta heróp gjalla móti Rabba (borg) Ammons sona, og hún skal verda ad rústar hrúgum og hennar dætur brennast med eldi; og Israel skal þá undir sig vinna, sem hafa unnid hann, segir Drottinn. 3. Æp, þú Hesbon, því Ai er eydiløgd! hljódid, Rabba dætur, klædist sekk, kveinid og hlaupid til og frá, milli víngards veggjanna; því Malkom fer í vesæld, hans prestar og høfdíngjar, í einu lagi. 4. Hvad stærir þú þig af dølunum? þinn dalur flýtur (í blódi), þú þverúdarfulla dóttir, sem treystir þínum aud (og sagdir): „hvør mun ad mér komast? 5. Sjá, eg læt skélfíngu koma yfir þig, segir (Herrann), sá alvaldi, Drottinn herskaranna, úr øllum áttum í kríngum þig; og þér skulud burtrekast, hvør, þad sem horfir, og einginn safnar þeim saman sem flýja. 6. En sídar meir mun eg leida til baka fánga Ammonssona, segir Drottinn.

7. Móti Edom. Svo segir Drottinn herskaranna: er þá eingin vitska meir í Teman? Eru gód rád horfin þeim vísu? Er þeirra vísdómur þrotinn? 8. Flýid, snúid ydur, og felid ydur djúpt, Dedans innbúar! því Esaus tjón leidi eg yfir hann, í þann tíma er eg heimsæki hann. 9. Ef vínskérumenn kjæmu yfir þig, mundu þeir ekkért eptir skilja, til ad uppskéra seinna; ef næturþjófar, mundu þeir skémma eptir nægju sinni. 10. Því eg gjøri Esau nakinn, dreg skýluna frá því sem hann hefir falid, falist gétur hann ekki. Eydilagt er hans sád, hans brædur og hans nábúar, og farnir eru þeir. 11. Yfirgéf þína munadarleysíngja, eg skal annast þá, og þínar ekkjur meiga reida sig á mig! 12. Því svo segir Drottinn: sjá! þeim sem ei bar ad drekka kaleikinn, þeir verda ad drekka; og þú, villt þú sleppa hjá refsíngu? þú skalt ei óhegndur vera, heldur skaltu drekka. 13. Því vid mig sór eg, segir Drottinn, ad Bosra skal verda ad vidurstygd, smán, ad eydimørk og bølvun, og allir hennar stadir, ad eilífri audn. 14. Vitneskju fékk eg frá Drottni, ad bodskapur er sendur medal þjódanna: „safnist saman, yfirfallid hana, og búid ydur út til strids"! 15. Því sjá! litla vil eg þig gjøra medal þjódanna, fyrirlitlega medal mannanna. 16. Ad þú varst svo óttaleg, þad tældi þig, og dramb þíns hjarta, af því þú býr á kletta hæd, og situr á fjallstindi, þó ad þú eins og ørn settir hátt þitt hreidur, eg steypi þér (samt) þadan nidur! segir Drottinn. 17. Og Edoms land verdur eydimørk: hvør sem þar fram hjá fer, mun fá í sig hryllíng, og spottast ad øllum þess plágum. 18. Líkt og þá Sódóma og Gommorra og øllum nálægum (stødum) var umturnad, segir Drottinn, mun þar einginn madur búa, og ekkért mannsbarn þar dvelja.

19. Sjá! sem ljón kémur hann upp frá b) Jórdans prýdi og stefnir á þad ágjæta haglendi; því sviplega vil eg hrekja þá (Edom) þadan! og þann útvalda vil eg setja þar yfir. Því hvør er sem eg, og hvør stefnir mér fyrir rétt, og hvør er sá c) hirdir sem stadid géti móti mér?

20. Þar fyrir heyrid ráds áliktan Drottins, sem hann hefir gjørt móti Edom, og hans áform sem hann hugsar sér móti Temans innbúum! Sannarlega munu þeir (óvinirnir) draga þá burt, þau kraptlausu lømb, sannarlega mun hann eydileggja þeirra bústad fyrir þeim. 21. Af dun þeirra falls bifast jørdin; harma kvein (heyrist), þess ómur heyrist til rauda hafsins. 22. Sjá! hann kémur sem ørn, og flýgur og breidir sína vængi yfir Bos-

V. 1. *a.* Afgud Ammonita og Móabita. V. 19. *b.* Þad fallega land vid Jórdan. *c.* Høfdingi yfir her eda þjód.

ra; og Edoms hetjur eru á þeim sama degi svo til sinnis, sem kona í barns neyd.

23. Móti Damaskus. Hemat og Arfad eru svívirdtar, þær eru huglausar, þvi þær hafa feingid ill tídindi, vid sjóinn er ángist, ró hafa menn ekki. 24. Damaskus missir hug, snýst á flótta, skjálfti grípur hana. Angist og pína grípa hana, eins og jódsjúka konu. 25. „Hvørsu er sá nafnfrægi stadur, borg minnar ununar, yfirgéfinn"! 26. Því skulu hennar æskumenn falla á hennar strætum, og allir þeirra strídsmenn fyrirfarast á þeim sama degi, segir Drottinn herskaranna. 27. „Og eld mun eg kveikja á Damaskus múrum", ad hann svelgi í sig Ben-Hadads hallir.

28. (Spádómur) móti Kedar og móti Hasors Kóngs ríkjum sem Nebúkadnesar, Babels Kóngur, vann.

Svo segir Drottinn: upp! farid á móti Kedar, og eydid austursins sonum! 29. þeirra tjøld og þeirra saudi munu þeir taka, þeirra dúka, og øll áhøld, og fara í burt med þeirra úlfalda; og menn kalla til þeirra: skélfíng allt í kríng. 30. Takid flótta, flýid af øllum kroptum, felid ydur vandlega, Hasors innbúar! segir Drottinn; því Nebúkadnesar, Kóngnrinn af Babel, hefir ráds ályktun tekid móti ydur, og hefir í hug rádagjørd móti ydur.

31. Af stad! farid á móti fridsømu fólki, sem ugglaust býr, segir Drottinn; hvørki hurdir né slagbranda hefir þad, þad býr útaf fyrir sig. 32. Og þeirra úlfaldar skulu verda ydur ad herfángi, og mergd þeirra hjarda ydur ad ráni; og eg tvístra þeim í allar áttir, þeim sem hafa skorid skégg; og frá øllum hlidum leidi eg yfir þá ógjæfu, segir Drottinn. 33. Og Hasor verdur ad úlfa bæli, ad eilífri audn; þar mun einginn madur búa, og ekkért manns barn þar dvelja.

34. Pad ord Drottins, sem kom til Jeremía spámanns, móti Elam (Persaland) í upphafi ríkisstjórnar Sedekía, Júda Kóngs, þá hann sagdi: 35. Svo segir Drottinn herskaranna: sjá! eg brýt Elams boga, mesta krapt þeirra, (sem þar búa). 36. Og eg leidi yfir Elam, þá fjóra vinda, frá fjórum himinsins áttum, og tvístra þeim í allar þessar áttir, og eingin skal sú þjód vera til, ad Elams flótta-menn komi ei til hennar. 37. Og eg læt Elamíta verda huglausa fyrir þeirra óvinum, og fyrir þeim sem sækjast eptir þeirra lífi, og leidi yfir þá óhamíngju, glód minnar reidi, segir Drottinn; og eg sendi eptir þeim sverdid, þángad til eg hefi afmád þá gjørsamlega. 38. Og eg reisi mitt hásæti í Elam, og afmái þar Kónga og fursta, segir Drottinn. 39. Þó skal þad ské seinna meir, ad eg leidi heim aptur Elams herteknu (menn).

## 50. Kapituli.

Babels eydilegging. Israels heimkoma.

1. Pad ord, sem Drottinn taladi fyrir Jeremía spámann, vidvíkjandi Babel, vidvíkjandi Kaldeumannalandi. 2. Kunngjørid medal þjódanna, og úthrópid þad, og setjid upp merki, bodid þad, dyljid þad ekki, segid: Babel er unninn, Bel ordinn til skammar, Merodak nidurbrotinn, þeirra afgudir ordnir til skammar, þeirra god sundurmulin. 3. Því móti þeim fer fólk ad nordan: þad gjørir þeirra land ad eydimørk, svo ad einginn býr þar, menn sem fé er flúid, burtfarid. 4. Á sømu døgum, og á sama tíma, segir Drottinn, skulu Israelssynir aptur koma og Júda synir líka; grátandi munu þeir gánga og leita Drottins síns Guds; 5. ad Síon spyrja þeir, þángad stefna þeir, þeir koma og gánga Drottni á hønd, med eilífum sáttmála, sem ekki mun gleymast.

6. Hjørd tíndra sauda var mitt fólk. Þeirra hirdarar leiddu þá afvega, á fjøllunum

létu þeir þá villast; frá fjøllum á hædir fóru
þeir í skyndi, gleymdu sínu bóli. 7. Hvør
sem hitti þá, át þá, og þeirra óvinir søgdu:
vér syndgum oss ekki! því þeir hafa syndgad
móti Drottni, haglendi réttlætisins, og von
sinna fedra, Drottni.

8. Flýid frá Babel, og farid burt úr landi
Kaldeumanna, og verid, sem kiarnhafrar, á und-
an saudunum! 9. Því sjá! eg læt upprísa og
móti Babel fara hóp mikillrar þjódar, úr nord-
ursins landi, og þeir skipa sér nidur móti þeim
og þadan frá verdur (landid) unnid. Þeirra
ørvar eru sem drepandi hetju, þeir fara ei
tómhendtir til baka. 10. Kaldea verdur ad
herfángi; allir hennar ránsmenn fá nægju sína,
segir Drottinn.

11. Því þér glødduſt, þér hrósudud happi,
ránsmenn minnar eignar, þér brugdud á leik,
eins og feitir kálfar, og hneggjudud eins og
stódhestar. 12. Nú er ydar módir (Kaldea)
ordin til skammar, svívirdt sú sem ól ydur; sjá
afdrif þjódanna: eydimørk, þurkur og audn.
13. Søkum reidi Drottins mun hún ei bygd vera,
hún verdur gjørsamlega ad eydimørk; hvør,
sem geingur framhjá Babel, mun fá í sig hryll-
íng, og spottast ad øllum hennar plágum.

14. Skipid ydur nidur í kríngum Babel,
þér allir bogmennirnir, skjótid á hana, sparid
ekki ørina! því móti Drottni syndgadi hún.
15. Hefjid heróp móti henni á allar hlidar!
hún réttir fram sína hønd (géfur sig), hennar
grundvøllur steypist, hennar múrar verda nid-
urrifnir; því þetta er Drottins hefnd. Hefn-
id ydar á henni. Eins og hún hefir gjørt, svo
gjørid þér! 16. Afmáid í Babel sádmanninn,
og þann sem sigdina ber á uppskéru tímanum!
fyrir því øfluga sverdi mun hvør einn hverfa
til síns fólks, og hvør einn flýa í sitt land.

17. Israel var sundurtættur saudur, sem
ljón høfdu elt, fyrst át Assýríu Kóngur þá og
nú seinast nagadi Nebúkadnesar, Kóngurinn af
Babel, um þeirra køgla. 18. Því segir Drott-
inn herskaranna, Israels Gud, svo: sjá! eg skal
finna Kónginn af Babel og hans land, eins
og eg hefi fundid Assýríu Kóng. 19. Og eg
leidi Israel til baka í hans átthaga, ad hann
sé á beit á Karmel og Basan, og metti sig á
Efraims fjalli og í Gílead. 20. Á sømu døg-
um og á sama tíma, segir Drottinn, munu
menn leita ad Israels synda sekt, og hún er
ekki til; og ad Júda syndum og þær munu ei
finnast; því eg fyrirgéf þeim, sem eg læt ept-
ir verda. 21. Far þú móti landinu tvøfaldr-
ar þverúdar, móti þeim seku innbyggjurum,
eydilegg og bannfær (þá sem koma) á eptir
þeim, segir Drottinn, og gjør allt eins og eg
hefi bodid þér! 22. Strídshark er í landinu
og mikid tjón. 23. Hvørsu er a) hamar allr-
ar jardarinnar sundurhøgginn og sundurbrotinn!
hvørsu er Babel ordin ad vidbjód medal þjód-
anna. 24. Eg lagdi þér snøru, Babel, þú
festir þig líka, svo þú vissir ekki af. Þú nád-
ist, og þú ert gripin, því þú hefir strídt móti
Drottni. 25. Drottinn lauk upp sínu geymslu-
búri, og tók þar úr vopn sinnar reidi; því
starfa hefir Herrann, Drottinn herskaranna, í
Kaldeumanna landi. 26. Komid móti henni
(Kaldeu), frá ytstu endum, opnid hennar hlød-
ur, kastid henni eins og í býng, og eydid hana,
látid ekkért eptir verda! 27. Drepid øll henn-
ar naut, leidid þau ad slátrunar bekknum! vei
þeim! þeirra dagur er kominn, hegníngartím-
inn. 28. Op þeirra sem flýa og undan komast,
hljómar frá Babelslandi, til ad boda í Síon
hefnd Drottins vors Guds, hefnd fyrir hans
musteri. 29. Æpid margir móti Babel, þér
sem spennid boga, setjid herbúdir allt í kríng
um hana; einginn komist undan; gjaldid henni

V. 23. *a*. Svo kallast Babel, því hún hafdi herjad á, og barid svo margar þjódir.

eptir hennar verkum, gjørid henni eins og hún
hefir gjort. Því drambsamlega hefir hún ad-
hafst gudleysi móti Drottni, móti Ísraels hei-
laga. 30. Því skulu hennar æskumenn falla
á strætunum, og allir hennar strídsmenn fyrir-
farast á þeim sama degi, segir Drottinn. 31.
Sjá! eg vil til vid þig, þú drambsama, segir
Herrann, Drottinn herskaranna; því þinn dag-
ur er kominn, tími þinnar hegníngar. 32.
Drambsemin dettur og steypist og einginn reis-
ir hana upp, og eld kveiki eg í hennar stødum,
ad hann eydi øllu sem í kríng er.

33. Svo segir Drottinn herskaranna: Ísra-
elssynir eru undirþrykktir og Júdasynir sømu-
leidis, og allir sem hafa flutt þá burt hertekna,
halda þeim føstum, vilja ekki láta þá lausa. 34.
En þeirra lausnari er sterkur, hann heitir: Drott-
inn herskaranna; hann mun taka ad sér þeirra
málefni, ad hann speki landid og óspeki Babels
innbúa. 35. Sverdid (komi) yfir Kaldeumenn,
segir Drottinn, og yfir Babels innbúa og yfir
hennar høfdíngja og yfir hennar vitrínga. 36.
Sverd yfir lyga Spámennina, og vitfyrríngar
verda þeir; sverd yfir hennar kappa, og huglausir
verda þeir; 37. sverd yfir hennar hross og yfir
hennar vagna, og yfir alla bandamennina sem í
henni eru, og ad konum verda þeir; sverd yfir
hennar fjársjódu og rænt verdur þeim; 38. þurk-
urinn yfir hennar vøtn og þad þornar; því skurd-
goda land er þad, og fásinnu møk hafa þeir
vid hjágudina. 39. Því skulu eydimerkurinn-
ar villudýr búa þar med úlfa brædrum, og þar
skulu búa strútsfuglar; og ekki skal hún fram-
ar bygd vera ad eilífu, og óbygd skal hún
vera frá kyni til kyns. 40. Líkt og þá Só-
dóma og Gomorra og þeirra nálægu stadir voru
af Gudi eydilagdir, segir Drottinn, mun þar
einginn madur búa og ekkért manns barn þar
dvelja.

41. Sjá! fólk kémur ad nordan, og mikil
þjód og margir Kóngar rísa frá endum jard-
arinnar. 42. Þeir bera boga og skotvopn,
grimmir eru þeir og miskunarlausir; þeirra
rómur er sem sjáfarhljód, á hestum rída þeir,
útbúnir til strídsá móti þér, Babels dóttir!
sem einn madur. 43. Kóngurinn af Babel
fær fregn af þeim og hans hendur ørmagnast,
ángistin grípur hann, hrídir eins og jódsjúka
konu. 44. Sjá! eins og ljón kémur hann frá
Jórdanar prýdi, mót því ágjæta haglendi: svip-
lega vil eg þá þadan reka (segir hann) og
þann útvalda vil eg þar yfirsetja. Því hvor
er sem eg, hvør stefnir mér fyrir rétt, og hvør
er sá hirdir sem mér géti mótistadid. 45. Heyr-
id því rádsáliktan Drottins, sem hann hefir
tekid móti Babel, og hans rádagjørd, sem hann
hefir upphugsad móti Kaldeumanna landi: þeir
munu sannarlega draga þá burt, þau krapt-
litlu lømb, eydileggja fyrir þeim haglendid.
46. Af ópinu: Babel er unninn, bifast jørdin,
og medal þjódanna heyrist harma kvein.

## 51. Kapítuli.

Sama efni.

1. Svo segir Drottinn: sjá! eg vek móti
Babel, og á móti þeim sem búa midt á medal
minna mótstandara, eydileggjandi storm; 2.
og eg sendi útlenda mót Babel, þeir skulu
vinsa þá og tæma þeirra land, því þeir yfir-
falla þá frá øllum hlidum, á ógjæfunnar degi.
3. Móti þeim sem spennir, spenni bogmad-
urinn sinn boga, og móti þeim, sem reisir sig í
sinni brinju! hlýfid ekki hennar æskumønnum,
drepid nidur í strá allann hennar her! 4.
Vegnir menn skulu falla í Kaldeumanna landi,
og þeir í gégnum løgdu á þeirra strætum.

5. Því Ísraels þjód er eingin ekkja, Júda
er ei yfirgéfin af sínum Gudi, af Drottni her-
skaranna; því hennar (Babels) land, hefir á
sér mikla søk vid Ísraels heilaga (Gud). 6.

Flýid úr Babel, og hvør og einn bjargi sínu
lífi, ad þér ei fyrirfarist sakir hennar synda sekt-
ar! því þetta er tími Drottins hefndar; hann
géldur henni eptir maklegleikum. 7. Gullbikar
var Babel í Drottins hendi, sem gjørdi alla
jørdina drukkna; þjódirnar drukku af hennar
víni, því ólmudust þjódirnar; 8. sviplega fell-
ur Babel og verdur sundur molud, „æpid yfir
henni, komid med smyrsli vid hennar sár,
líklega verdur hún grædd!" 9. „Vér viljum
græda Babel, en hún er ekki ordin heil; yfirgéf-
id hana, og látum oss fara, hvørn í sitt land!
því hennar refsíng nær til himins og lyftir sér
upp til skýanna". 10. „Drottinn hefir leidt í
ljós vort góda málefni: komid, vér skulum kunn-
gjøra í Síon verk Drottins, vors Guds!"

11. Skérpid ørvarnar, smyrjid skildina!
Drottinn hefir vakid anda Medíu Kóngs; því
móti Babel (midar) hans rádagjørd, til ad
eydileggja hana; þad er hefnd Drottins, hefnd
fyrir hans musteri. 12. Reisid upp merki gagn-
vart Babels múrum, aukid vardhøldin, nidur-
skipid vardmønnum, setjid launsátur! því Drott-
inn hugsar eitthvad, og framkvæmir líka þad
sem hann hefir talad móti Babels innbúum.
13. Þú sem býr vid þad mikla vatnsfall, rík
af fjársjódum, þinn endi kémur, mælir þíns
ráns (er fylltur). 14. Drottinn herskaranna
hefir svarid vid sitt líf: eg fylli þig mønnum,
eins (mørgum) og eingisprettur (eru í hóp),
þeir æpa heróp móti þér.

15. Hann gjørdi jørdina med sínum mætti,
tilbjó heiminn med sínum vísdómi og þandi út
himininn med sínum skilníngi. 16. Þegar hann
þrumar, þá er vatnsmegn í himninum, og hann
dregur ský saman frá jardarinnar endum, eld-
íngar tilreidir hann til regns, og tekur vindinn
úr sínum hirdslum. 17. Fávís er hvør mad-
ur án (þessarar) þekkíngar; til skammar verdur
hvør smidur fyrir sínar líkneskjur; því tál er
hans steypuverk, og eingin andi í því. 18.
Ekkért eru þær (líkneskjur), tálverk, á þeirra
hegníngar tíma munu þær hverfa. 19. Ekki,
eins og þær, er sá sem vard Jakobs hlutdeild;
heldur hefir hann allt myndad, og Israel er
hans eignar stofn, Drottinn herskaranna heitir
hann.

20. Hamar varstu mér, strídsvopn, og eg
sundurmoladi med þér þjódirnar, og eydilagdi
Kóngsríkin. 21. Eg sundurlamdi med þér
hesta og reidmenn, og sundurmoladi med þér
vagna og þá sem þeim stírdu. 22. Eg sund-
urlamdi med þér mann og konu, sundurmoladi
med þér úngann og gamlann, og sundurlamdi
æskumenn og meyar. 23. Eg sundurmoladi
med þér hirdir og hjørd, og sundurlamdi akur-
yrkjumann og akueyti, og sundurbraut med þér
høfdíngja og landstjórnendur. 24. En eg end-
urgéld Babel og øllum Kaldeu innbúum allt
þad íllt sem þeir gjørt hafa Síon, fyrir ydar
augum, segir Drottinn.

25. Sjá, eg vil ad þér, þú eydileggjandi
fjall, segir Drottinn, þú sem eydilagdir allann
heiminn! eg útrétti mína hønd móti þér, og
velti þér nidur af klettinum, og eg skal gjøra
þig ad brendu fjalli, 26. svo menn géti ekki
sókt úr þér horn-steina né undirstødu-steina,
heldur skaltu vera eilíf eydimørk, segir Drottinn.

27. Setjid upp merki í landinu, blásid í her-
lúdra medal þjódanna, útbúid þjódirnar móti
Babel, kallid móti henni Kóngsríkin Arat,
Minni og Askenas, setjid móti henni herfor-
íngja, látid hesta híngad koma, líkt stríhærdum
eingisprettum! 28. Vígid (útbúid) móti þeim
þjódirnar, Medíu Kónga, þeirra jalla og høf-
udsmenn og øll lønd þeirra herradæmis. 29.
Jørdin nøtrar og hristist, því nú koma fram
móti Babel, Drottins rádagjørdir, ad gjøra

V. 11. Smyrjid þ. e. hebr. mettid skildina. V. 13. Mælir þ. e. þú rænir ekki héreptir.

Babels land ad audn, innbúalausri. 30. Babels kappar hætta ad berjast, þeir halda kyrru fyrir í køstulunum, þeirra hreysti er farin, þeir eru ordnir konur; menn hafa kveikt í þeirra hýbýlum, slagbrandar þeirra eru brotnir. 31. Hlaupa-sveinn hleypur móti hlaupa-sveini, sendibodi móti sendiboda, til ad færa bodskap Kónginum af Babel, ad hans stadur sé unninn enda á milli; 32. ferjustadirnir eru teknir, Seftjarnirnar uppbrendar med eldi, og allur hugur er horfinn strídsmønnunum.

33. Því svo segir Drottinn herskaranna, Ísraels Gud: Babels dóttir er lík kornhlødu gólfi, á þeim tíma er korn skal þreskja; innann skams kémur uppskéru tími fyrir hana. 34. Oss át og eyddi Nebúkadnesar, Babels Kóngur, eptirskildi oss sem tómt ilát, svalg oss sem dreki, fyllti sinn belg med voru sælgjæti, slæmdi oss burt. 35. Þad ofbeldi sem eg og mitt hold hefir ordid fyrir, komi yfir Babel, segir sú sem býr í Síon, og mitt blód yfir Kaldeu innbúa, segir Jerúsalem. 36. Því segir Drottinn svo: eg skal taka ad mér þitt málefni, og hefna fyrir þig, og uppþurka hennar (Babels) haf, og láta hennar uppsprettur þorna. 37. Og Babel skal verda ad grjóthrúgu, úlfabæli, vidbjód og athlátri, einginn skal þar búa. 38. Í einulagi grenja þeir allir sem ljón og orga sem ljónshvolpar. 39. Þegar þeir eru heitir ordnir, skal eg birla þeim drykk, og gjøra þá drukkna, svo þeir galsist, og sofni svo eilífum svefni, og vakni ekki aptur, segir Drottinn: 40. eins og saudum læt eg þeim slátra, eins og hrútum og kjarnhøfrum. 41. Hvørsu er Sesak (Babel) unnin og tekin, frægd allrar jardarinnar! hvørsu er Babel ordin ad vidbjód medal þjódanna! 42. Sjórinn hefir geingid yfir Babel, af lødri hans bylgna, er hún hulin. 43. Hennar stadir eru ordnir ad audn, þurru landi og heidi, ad landi, hvar einginn madur býr, yfir hvørt ekkért manns barn fer. 44. Og eg sinn Bel í Babel, og tek út úr hans munni þad sem hann svelgdi; ekki skulu þjódir hér eptir til hans streyma; Babels múrar skulu líka hrynja.

45. Farid úr henni, mitt fólk, og bjargi hvør sínn lífi, undan (fyrir) reidiglód Drottins! 46. Og svo ydar hjarta ekki veiklist, og þér verdid ekki hræddir vid tídindi, sem heyrast í landinu, þegar þessi tídindi koma í ár, og sídan næsta ár, hin tídindin, og ofbeldi vidgeingst í landinu, høfdíngi (rís) móti høfdíngja. 47. Þá sjá! dagar koma ad eg straffa Babels hjágudi, og land hennar verdur til skammar, og allir hennar drepnu (menn) falla midt í henni. 48. Og himin og jørd, og allt sem þar er inni, hlakkar yfir Babel; því nordanad koma yfir hana eydileggjararnir, segir Drottinn. 49. Eins og Babel lét Ísraels vegna menn falla, svo skulu og menn vegna Babels falla í øllu landinu. 50. Þér sem sluppud undan sverdinu! farid, tefjid ekki! hugsid áleingdar til Drottins, og hafid Jerúsalem í huga.

51. Vér vorum svívirdtir; vér urdum varir vid fyrirlitníngu og sneypa huldi vor andlit; því útlendir voru innkomnir í helgidóma Drottins húss. 52. Þar fyrir, sjá! dagar koma, segir Drottinn, ad eg sinn hennar god, og vegnir menn snørla í øllu landinu. 53. Þó Babel lypti sér upp til himna, og gjøri hæd sínna girdínga óyfirfaranlega, frá mér (sendir) skulu eydileggjararnir yfir hana komast, segir Drottinn. 54. Hljómur harmakveins frá Babel og mikil eymd (heyrist) úr Kaldeumanna landi. 55. Því Drottinn eydileggur Babel, og upprætir úr henni þann mikla hávada; hennar bylgjur brúsa, sem (bylgjur) mikils vatns, hennar gjallandi hljómur kvedur vid. 56. Því yfir hana, yfir Babel, kémur eydileggjarinn,

og hennar hetjur verda teknir til fánga, þeirra bogi brotinn; því Drottinn er hegnandi Gud, hann mun endurgjalda. 57. Eg gjøri drukkna hennar høfdíngja, hennar vitrínga, hennar landstjórnara, hennar høfudsmenn, hennar kappa, svo ad þeir sofni eilífum svefni, og vakni ei aptur, segir Konúngurinn, hann heitir Drottinn herskaranna. 58. Svo segir Drottinn herskaranna: Babels múrar, þeir breidu, skulu nidurrífast, og hennar port, þau háu, skulu í eldi eydast, svo fólkid hefir unnid fyrir ekki, og þjódirnar lagt á sig erfidi fyrir eldinn.

59. Pad ord, sem Jeremías spámadur, baud Seraja syni Nería, sonar Maesa, þá hann fór med Sedekía, Júda Kóngi, til Babel, á fjórda ári hans ríkisstjórnar. En Seraja var fridsamur høfdíngi. 60. Og Jeremías skrifadi alla þá ógjæfu, sem koma skyldi yfir Babel, í eina bók, øll þessi ord, sem skrifud eru móti Babel. 61. Og Jeremías sagdi vid Seraja: þegar þú kémur til Babel, þá sjá svo til, ad þú lesir øll þessi ord, 62. og seg: Drottinn! þú hefir talad gégn þessum stad, ad þú vildir afmá hann, svo einginn innbúi væri þar framar, hvørki menn né fénadur, heldur skyldi hann verda ad eilífri audn. 63. Og þegar þú hefir lesid bókina út, svo bind þú vid hana stein, og kasta þú henni í Frat, 64. og seg: svona skal Babel søkkva og ekki aptur uppkoma, sakir þeirrar ógjæfu sem eg leidi yfir hana, og þeir skulu þar liggja magnlausir.

Híngad ná Jeremía ord.

## 52. Kapítuli.

Saga um Jerúsalems eydileggíng. (Sbr. 2 Kk. 24 og 25 Kap.)

1. Sedekías hafdi einn um tvítugt þá hann vard Kóngur og 11u ár ríkti hann í Jerúsalem; en módir hans hét Hamital, Jeremía dóttir, frá Libna. 2. Og hann gjørdi þad sem íllt var í augsýn Drottins, allt eins og Jójakim hafdi gjørt. 3. Því søkum reidi Drottins fór þad svo fyrir Jerúsalem og Júda, þángad til hann burtkastadi þeim frá sínu augliti. Og Sedekías féll frá Kónginum af Babel.

4. Og þad skédi á 9da ári hans ríkisstjórnar, í 10da mánudi, á 10da (degi) mánadarins, ad Nebúkadnesar, Babels Kóngur, kom, hann og allur hans her, móti Jerúsalem, og þeir settust um hana og bygdu hervirki allt í kríngum hana. 5. Og stadurinn var umsetinn allt fram á 11ta ár Sedekía Kóngs. 6. Í fjórda mánudi á 9da (degi) mánadarins, tók húngrid mjøg ad vaxa í stadnum, og þá var ekkért braud fyrir landsfólkid. 7. Og menn brutust inní stadinn, og strídsfólkid flúdi úr stadnum um nóttina út um hlidid milli þeirra tveggja veggja á Kóngsins aldingardi, (en Kaldeumenn voru í kríngum allann stadinn), og fóru veginn út ad eydimørkinni. 8. En Kaldeumanna her elti Kónginn, og þeir nádu Sedekías á Jeríkós vøllum, og allur hans her tvístradist frá honum. 9. Og þeir handtóku Kónginn og fóru med hann til Kóngsins af Babel (sem þá var) í Ribla, í landinu Hemat, og hann lagdi á hann dóm. 10. Og Kóngurinn af Babel slátradi Sedekía sonum, fyrir hans augum, og líka slátradi hann í Ribla øllum Júda høfdíngjum. 11. Og Sedekía blindadi hann á augunum, og batt hann fjøtrum; og Kóngurinn af Babel flutti hann til Babel og setti hann í fángélsi, þángad til hann andadist.

12. Og í fimta mánudi, 10da daginn, þad var 19da ár Kóngs Nebúkadnesars, Kóngs í Babel, kom Nebúsaradan, yfirmadur lífvaktarinnar, sem þjónadi Kónginum af Babel, til Jerúsalem, 13. og brendi upp Drottins hús og

V. 59. Fridsamur o. s. fr. adr: høfdingi yfir herbergjunum.

Kóngsins hús, og øll húsin í Jerúsalem, øll stór hús brendi hann upp med eldi. 14. Og alla Jerúsalems múra allt um kríng reif allur her Kaldeumanna, sem var med yfirmanni lífvaktarinnar, nidur. 15. Og Nebúsaradan, yfirmadur lífvaktarinnar, flutti burt til Babel (marga) af því ódædra fólki og leifar fólksins, þá eptir ordnu í stadnum, og þá stroknu, sem geingid høfdu yfir til Kóngsins af Babel, afgáng fólksfjøldans. 16. En af þeim lítilmótlegu lét Nebúsaradan, yfirmadur lífvaktarinnar, eptir verda vínyrkju- og akuryrkjumenn. 17. Og eirstólpana í húsi Drottins og bordstólana og eirhafid í húsi Drottins, brutu Kaldeumenn, og fluttu allt þad eir til Babel. 18. Og pottana og sleifarnar og hnífana og skálarnar og bikarana og øll eir áhøld sem brúkud voru vid þjónustugjørdina, tóku þeir; 19. og mundlaugarnar og glódarkérin og skálarnar og ljósastjakana og pottana og bikarana og kønnurnar, hvad sem var af gulli, gull, og hvad sem var af silfri, silfur, þad tók yfirmadur lífvaktarinnar. 20. Þá tvo stólpa, þad eina haf, og þau tólf naut af eiri a) undir bordstólunum, sem Salómon Kóngur lét gjøra fyrir Drottins hús; eirid í øllum þessum áhøldum vard ekki vegid. 21. Og stólparnir — 18 álnir var hæd þess eina, og 12 álna (lángt) band nádi utanum þá, og þeirra þikkt var fjøgra fíngra, því þeir voru holir; 22. og eirhnúdur efst, og hæd hnúdsins var 5 álnir, og netverk og kjarnepli voru í kríngum hnúdana, allt af eiri, og eins var á hinum stólpanum og kjarnepli. 23. Og kjarneplin voru 96 í fríu lopti, og øll kjarneplin voru hundrad, og netverk allt í kríng.

24. Og yfirmadur lífvaktarinnar tók Seraja, høfudprest, og Sefanía prest af annari (rød), og þrjá dyraverdina, 25. og úr stadnum tók hann hirdmann, sem settur var yfir strídsfólkid, og 7 menn af þeim sem stódu fyrir Kónginum, sem fundust í stadnum, og skrifarann, herforíngjann, sem tók landsfólkid til strídsþjónustu, og 60 menn af landsfólkinu, sem fundust í stadnum, 26. þessa tók Nebúsaradan, yfirmadur lífvaktarinnar, og fór med þá til Kóngsins af Babel til Ribla. 27. Og Kóngurinn af Babel vann á þeim og deyddi þá í Ribla í landinu Hemat. Og þannig vard Júda fólk burtflutt úr sínu landi.

28. Þetta er þad fólk sem Nebúkadnesar flutti burt: á sjøunda ári, 3023 Júda. 29. Á 18da ári Nebúkadnesars úr Jerúsalem: 832 sálir; 30. á 23ja ári Nebúkadnesars, flutti Nebúsaradan, yfirmadur hirdmannanna, burt 745 Júda: allar sálir til samans 4600.

31. Og þad skédi á 37da ári eptir burtflutníng Jójakims, Júda kóngs, í 12ta mánudi, á 25ta (degi) mánadarins, þá upphóf Merodak, Babels Kóngur, á því ári, sem hann vard Kóngur, høfud Jójakims, Júda Kóngs, og tók hann úr fángelsinu; 32. og taladi gódsamlega vid hann, og setti hans stól uppfyrir stóla þeirra Kónga, sem hjá honum vóru í Babel; 33. og lét hann fara úr myrkvastofu búnínginum; og hann át vid hans bord ætid, alla sína æfi. 34. Og hans uppheldi, þad støduga uppheldi, var honum géfid af Kónginum í Babel, þad dagsdaglega, allt ad hans dauda degi, svo leingi sem hann lifdi.

---

V. 20. *a.* Nautin voru undir eir hafinu, 1 Kgb. 7, 25.

# Harmagrátur Jeremiasar.

## 1. Kapítuli.

Harmakvein útaf toku Jerúsalemsborgar og herteknuíngu fólksins.

1. Ó! hvørsu einmana er nú borgin sem
ádur var svo fjølbygd! Hún er ordin eins og
ekkja; hún, sem var svo voldug medal þjóð-
anna; hún, sem drottnadi yfir (skatt) løndum,
er nú ordin skattgyld. 2. Hún grætur sáran
á nóttunni, svo tárin streyma ofaneptir kinn-
um hennar; hún á eingan ad, af øllum sínum
(fyrri) elskugum, sem huggi hana, allir vinir
hennar hafa brugdist henni, og eru ordnir ad
óvinum hennar. 3. Júda (Gydínga þjód)
hefir flúid land, fyrir eymd og þúngri ánaud;
hún tok sér bústad medal heidíngja, en finn-
ur einga ró, allir hennar ofsóknarmenn ná til
hennar í þreyngslunum. 4. Síons vegir syrg-
ja, af því eingir fara (um þá) til hátídahalds;
øll hennar (borgarinnar) hlid eru í audn, prestar
hennar andvarpa, meyar hennar eru sorgbitnar, og
henni sjálfri geingur þetta nærri. 5. Mót-
stødumenn hennar vada uppi, óvinir hennar
eiga góda og náduga daga, því Drottinn hefir
hrellt hana vegna hennar mørgu afbrota, børn
hennar urdu ad hrekjast í útlegd (fángelsi)
fyrir óvinunum. 6. Allt skart Síons dóttur er
horfid henni, høfdíngjar hennar eru ordnir eins og
hyrtir, sem ekki finna haga, og flýa magnþrota
undan þeim sem eltir (þá). 7. Jerúsalem má,
á sínum eymdar- og ofsóknadøgum, muna til
allra kjørgripa sinna, er hún átti fordum daga;
nú, þegar lýdur hennar er fallinn fyrir óvina
hendi, og einginn hjálpar henni, horfa óvinirnir á
hana, og hlæa ad óførum hennar. 8. Jerú-
salem syndgadi mjøg, þar fyrir er hún ordin
ad vidurstygd, allir sem heidrudu hana, virda
hana nú lítils, því þeir sjá vanvirdu hennar;
hún andvarpar sjálf, og snýr sér undan (fyrir-
verdur sig). 9. Hennar óþverri lodir vid
klædafald hennar; hún athugadi ekki afdrif sín,
því er hún nú svo skélfilega afmád, einginn hugg-
ar hana. „Alít þú, Drottinn! eymd mína, því
óvinurinn er mitt ofurefli"! 10. Óvinurinn
hefir slegid hendi sinni yfir alla hennar kjør-
gripi, því hún hefir horft á, ad heidíngjarnir
geingu inní hennar helgidóm; hafdir þú þó
bodid: þeir skulu ekki koma í þína samkundu.
11. Allur lýdur hennar andvarpar leitandi
fædu; þeir gefa dýrgripi sína fyrir mat sér til
hressíngar. „Sjá, Drottinn! og gef því gaum,
ad eg er svívirdt"!

12. „Komist þér ekki vid, allir sem fram
hjá farid um veginn? athugid og skodid, hvørt
nokkur neyd líkist minni neyd, sem á mig er
løgd, sem Drottinn lét dynja yfir mig á degi
sinnar brennandi reidi. 13. Af hædum sendi
hann eld í bein mín, og hann drottnar þar,
hann lagdi net fyrir fætur mér, og héldt þad
mér fánginni a), hann gjørdi mig ad ørbæli,
daglega vesæla. 14. Ok synda minna er bund-
id (vid mig), med hans hendi eru þær fléttad-
ar saman, og lagdar mér á háls, hann hefir
veikt þrótt minn; Drottinn hefir seldt mig þeim
í hendur, sem eg fæ ekki móti stadid. 15.
Drottinn hefir gjørt lítid úr øllum køppum
mínum, sem í mér bjuggu, hann stefndi lidi
móti mér, til ad vinna á æskumønnum mínum,
Drottinn tród vínpressu mærinni Júda dóttur b).

V. 13. *a.* Adrir: hann (Drottinn) lét mig detta aptur á bak. V. 15. *b.* Ad troda vínpressu, var mikid erfidi; „ad troda einhvørjum vínpressu" þýdir þess vegna: ad fara illa med, þjá hann.

16. Yfir þessu græt eg, auga mitt, auga mitt
flýtur í tárum a), því huggarinn er lángt frá
mér til ad hressa mig, synir mínir eru yfir-
komnir, því óvinurinn var voldugur".

17. Síon útbreidir hendur sínar, en einginn
er sem huggi hana, Drottinn hefir skipad, ad
óvinir Jakobs skyldu umkríngja hann, Jerúsal-
em er ordin ad vidbjód medal þeirra. 18.
„Drottinn er (samt) réttlátur, því eg hafdi
þrjótskast gégn bodi hans; hlustid til, allar
þjódir, og sjáid eymd mína! meyar mínar og
ýngismenn eru farnir í herleidíngu. 19. Eg
ákalladi vini mína, en þeir sviku mig; prestar
mínir, øldúngar í borginni hljóta ad deya, því
þeir leita (forgéfins) vidurværis handa sér, til
ad endurnæra líf sitt. 20. Sjá þú! Drottinn,
ad eg á bágt! inniflin ida í mér, hjarta mitt
berst í brjósti mér, af því eg var svo þverbrot-
in; ad utanverdu hefir sverdid gjørt mig
barnlausa, ad innanverdu (í borginni) er daud-
ans ímynd. 21. Þeir heyra andvørp mín, en
eingann á eg ad, sem huggi mig, allir óvinir
mínir hafa frétt neyd mína, og fagna, af því
þú hefir gjørt þetta (farid svona med mig); en
láttu daginn koma, sem þú hefir ákvardad,
þá munu þeir verda eins og eg. 22. Øll
þeirra íllska komi fyrir þitt auglit, og svaladu
þér á þeim, eins og þú hefir svalad þér á mér,
fyrir øll mín afbrot! því andvørp mín eru
mørg (þúng), og hjarta mitt er sárveikt".

## 2. Kapítuli.

Harmakvein yfir eydileggíngu borgarinnar.

1. O! hvørsu hefir Drottinn í brædi sinni
hulid Síons dóttur (med vanvyrdu)! hann
hefir varpad Ísraels dýrd (hrósunarefni) frá
himnum til jardar, og minntist ekki sinnar fót-
skarar b) á degi brædi sinnar. 2. Drottinn
hefir vægdarlaust afmád alla Jakobs bústadi,
hann reif nidur í brædi sinni (øll) vígi Júda
dóttur, og jardvarpadi þeim, vanhelgadi ríki
hennar og høfdíngja. 3. Hann braut í sinni
brennandi reidi øll Ísraels horn c), hann dró
hægri hønd sína ad sér frá óvinarins augum d),
hann brenndi Jakob, eins og eldslogi eydir (øllu)
umhverfis. 4. Hann spennti boga sinn, eins
og óvinur, beitti sinni hægri hendi eins og mót-
stødumadur, og myrdti allt sem augad unni, hann
útjós brædi sinni, eins og eldi, yfir tjald Sí-
ons dóttur e). 5. Drottinn er ordinn eins og
óvinur, hann hefir afmád Ísrael, afmád allar
hans hallir, eydilagt vígi hans, og hladid eymd
á eymd ofan yfir Júda dóttur. 6. Hann hefir
rifid nidur gyrdíng sína, eins og (gyrdíng í
kríngum) aldingard, afmád samkundu stad sinn
(musterid); Drottinn hefir látid hátídir og helgi-
daga gleymast í Síon, og smánad bædi Kóng
og prest í sinni hefndar reidi. 7. Drottinn hef-
ir hafnad altari sínu, útskúfad helgidómi sínum,
ofurselt hennar (Jerúsalems borgar) slotsmúra í
óvina hendur; þeir létu raust sína glymja í húsi
Drottins, eins og á hátídar degi. 8. Drottinn
hafdi ásett sér ad eydileggja múr Síonsdóttur,
hann útþandi mælivadinn, tók ekki hønd sína
frá eydileggíngunni, heldur útlék sorglega f) varn-
argrøf og múrvegg, þau eru bædi saman aumk-
unarlega á sig komin. 9. Hlid hennar (borg-
arinnar) eru sokkin í jørdu g), hann hefir ónýtt
og mølbrotid slagbranda hennar, Kóngur henn-
ar og høfdíngjar eru medal heidíngja, løgmál-

V. 16. *a.* A hebr: „í vatni". V. 1. *b.* „Fótskør" þ. e. sáttmálsørkin. V. 3. *c.* „Braut Ísraels horn" þ. e. svipti Ísraels ríki øllum krapti. *d.* Meiningin: gaf óvinunum friann gáng. V. 4. *e.* „Tjald Síons dóttur" þ. e. musterid. V. 8. *f.* A hebr: „lét syrgja" borgir voru umgirdtar med veggjum, og svo því erfidara væri ad komast uppá veggina ad utanverdu, var grøf grafin allt í kríng, og vatni hleypt í; þetta gat ekki ordid Jerúsalem ad vørn, þess vegna er svo ad ordi kvedid: ad Gud hafi látid múrvegginn og varnargrøfina syrgja. V. 9. *g.* „Sokkin í jørdu" nl. af gyrdíngar hruninu; adrir útleggja: „hlid hennar hrundu til jardar".

id er horfid (eingir kénna), já, spámenn henn-
ar fá eingar sjónir frá Gudi. 10. Öldúngar
Síons dóttur sitja þegjandi á jørdunni, ausa moldu
yfir høfud sín, og klæda sig sorgar búníngi a),
Jerúsalems meyar heingja høfud sín til jardar.
11. „Augu mín þverra b) af tárum, inn-
iflin ida í mér, lifrin í mér er úthellt á jørd-
ina c), vegna ófara bætra þjódar minnar; þeg-
ar børn og brjóstmylkíngar vagnmegnast á borg-
ar gøtunum. 12. Þau segja vid mædur sínar:
hvar er braud og vín? er þau vanmegnast eins
og daudsærdir menn, á borgarstrætunum, og
géfa upp øndina í fadmi mædra sinna. 13.
Hvad á eg ad vitna fyrir þér? (hvørnig á eg
ad ávarpa þig) hvørju á eg ad líkja vid þig?
Jerúsalems dóttir! hvørju á eg ad jafna vid
þig, ad eg huggi þig, mærin Síonsdóttir?
því áverki þinn er stór eins og hafid, hvør
gétur læknad þig? 14. (Fals) spámenn þínir
opinberudu þér hégóma og tál, en drógu ekki skýl-
una af synd þinni, til ad koma í veg fyrir
ógjæfu þína, heldur tøldu þeir þér trú um
falskar og tælandi vitranir. 15. Allir sem
framhjá fara, klappa lof í lófa yfir þér, hvísl-
ast á, og hrista høfudin yfir Jerúsalemsdótt-
ur (og spyrja): „er þetta borgin, sem þeir
kølludu hina alføgru, unun alls landsins?
16. Allir þínir óvinir glenna upp ginid yfir
þér (þ. e. hædast ad þér) hvíslast á, gnýsta
tønnum og segja: „afmád gátum vér hana;
já, tarna er dagurinn sem vér bidum eptir,
hann er þá kominn, vér høfum sjed (lifad)
hann". 17. Drottinn hefir framkvæmt þad,
sem hann hafdi ásett sér, hann hefir efnt ord
sitt (hótun sína), sem hann fordum daga hafdi
bodid (ad kunngjøra), hann hefir vægdarlaust
umturnad, veitt óvinum þínum føgnud yfir
þér, og upphafid horn (aukid veldi) þinna
mótstødumanna. 18. Hjørtu þeirra (Gyd-
ínganna) ákalla Drottinn, ó! þú múrveggur
Síons dóttur! láttu tárin renna, eins og læk,
dag og nótt, géfdu þér ekki hvíld (láttu því
ekki linna), augasteinn þinn hvíli sig ekki. 19.
Fardu á fætur, æptu á nóttunni, þegar vakt-
irnar byrja, aus þú hjarta þínu út eins og
vatni fyrir Drottni, fórnadu høndum þínum
til hans fyrir lífi úngbarna þinna, sem van-
megnast af húngri á øllum strætamótum. 20.
Sjá, Drottinn, og athuga, med hvørn þú hef-
ir farid svona! eiga konurnar ad eta lífs á-
vexti sína, úngbørnin, sem borin eru á hønd-
um? Eiga prestarnir og spámennirnir ad deya
í Drottins helgidómi? 21. Ungir og gamlir
liggja á gøtunum á jørdunni; meyar mínar og
ýngismenn eru fallnir fyrir sverdi, þú myrdtir
á degi reidi þinnar, þú deyddir og þyrmdir
eigi. 22. Þú kalladir skélfíngar yfir mig úr
øllum áttum, eins og til hátídardags, og eing-
inn var, sem undan kjæmist, eda eptir yrdi á
Drottins reidi degi; þá sem eg bar á høndum,
og var ad klekja upp, hefur óvinur minn afmád.

## 3. Kapítuli.

*Harmakvein þess gudhrædda sem lídur.*

1. Eg em sá madur, sem sá eymdina (hlaut
ad kénna á eymdinni) af hans grimdar svipu.
2. Hann rak mig, svo eg gékk í myrkri (hrygd)
en ekki ljósi (gledi). 3. Já, hann beitir hendi
sinni hvad eptir annad móti mér daglega. 4.
Hann lét af mér tálgast hold og húd, og muldi
bein mín. 5. Hann króadi mig inni, og um-
kríngdi mig med beiskju og mædu. 6. Hann
lét mig gista í myrkrabælum, eins og þá, sem
dánir eru fyrir laungu. 7. Hann hlód gyrd-
íng kríngum mig, svo eg gat ekki komist út,
hann lagdi á mig þúngar koparvidjur. 8.

V. 10. *a.* Á hebr. „hárklædi". V. 11. *b.* „þverra", þ. e. eydast, skáldleg útmálun þýngstu sorgar. *c.* Utmálun mestu hjartasorgar, med ødrum ordum: „lifrin, eda hjartad í mér er ordid svo sært, ad blódid úr því rennur útá jørdina".

Jafnvel þó eg hrópadi og æpti um hjálp, þá lokadi hann fyrir bæn minni. 9. Hann gyrdti fyrir vegi mína med høggnum steinum, og umhverfdi sporum mínum. 10. Hann var mér einsog bjørn, sem liggur í launsátri, einsog ljón í leynibæli. 11. Hann lét leidir mínar liggja afvega, hann sleit mig í sundur, og gjørdi útaf vid mig. 12. Hann spennti boga sinn, og setti mig einsog skotmál fyrir ørina. 13. Hann hæfdi nýru mín med sonum síns ørfamælis (ørvunum). 14. Eg er ordinn ad athlæis-efni allri minni þjód, ad daglegri hádvísu þeirra. 15. Hann saddi mig á bitrum urtum, og gjørdi mig drukkinn af malurt. 16. Hann lét mig mylja tennur mínar á sandsteinum (sendnu braudi), og kjæfdi mig med øsku. 17. Þú hefir svipt sál mína fridi, eg hefi gleymt því góda. 18. Eg segi: horfid er traust mitt og von frá Drottni (Drottinn hefir svipt mig trausti og von). 19. Minnstu eymdar minnar, og ofsókna (sem eg líd), malurtarinnar og eiturjurtarinnar!

20. Sál mín hugsar yduglega um þetta, og er nidurbeygd (mædd) í mér. 21. Eg svara hjarta mínu (sjálfum mér) aptur þessu, og þessvegna þreyi eg vongódur: 22. Þad er nád Drottins, ad vér erum ekki afmádir, því hans miskunsemi þrýtur aldrei; 23. hún er ný á hvørjum morgni; mikil er þín trúfesti. 24. Drottinn er mín hlutdeild, segir sál mín, þar fyrir skal eg vona á hann. 25. Drottinn er gódur þeim sem bída hans (treysta honum) og þeirri sál (þeim manni) sem leitar hans. 26. Sæll er sá, sem þolgódur bídur eptir lidveitslu Drottins. 27. Þad er manninum hollt, ad bera okid í æsku sinni. 28. Hann sitji einmana og þegjandi, þegar hann (Drottinn) leggur þad á hann. 29. Hann stíngi munni sínum í duptid (audmýki sig), (og hugsi): „kannské enn sé einhvør von". 30. Hann bjódi þeim vángann, sem slær hann, og mettist af vanvirdu.

31. Því ekki útskúfar Drottinn æfinlega; 32. því þó hann hrelli, þá miskunar hann aptur eptir sinni miklu nád; 33. því ekki hefir hann yndi af, ad þjá og hrella mannanna børn. 34. Ef einhvør fótum trædi alla fánga á jørdunni; 35. ef einhvør halladi rétti manns fyrir augliti hins hæsta; 36. ef einhvør rángfærdi annars manns réttarmál — sæi þá Drottinn þad ekki? 37. Hvør er sá sem segi: þetta skédi, Drottinn hafdi þó ekki skipad þad? a) 38. Útgeingur ekki af munni (skédur ekki ad bodi) hins hæsta bædi íllt og gott?

39. Yfir hvørju andvarpar madurinn medan hann lifir? sérhvør yfir sínu syndastraffi. 40. Látum oss kanna og ransaka breytni vora, og snúa oss til Drottins! 41. Látum oss hefja hjørtu vor, auk handanna, til Guds á himnum! 42. Vér høfum syndgast, og verid þverbrotnir; þú fyrirgafst ekki. 43. Þú fólst þig í reidi, og ofsóktir oss; þú deyddir og þyrmdir ekki. 44. Þú byrgdir þig í skýi, sem bænin komst ekki ígégnum. 45. Þú gjørdir oss ad afhraki og vidbjód medal þjódanna. 46. Allir vorir óvinir glenna upp ginid yfir oss. 47. Skélfíng og grøf (daudans hætta) kom yfir oss, eydilegging og ófarir.

48. Vatns (tára) lækir streyma af augum mér, útaf óførum þjódar minnar b). 49. Augu mín fljóta (í tárum) og hvílast ekki, því ekkért hlé er á; 50. þángad til Drottinn lítur ofan af himnum, og skodar. 51. Auga mitt kvelur (med grátinum) sál mína (mig) vegna allra dætra borgar minnar. 52. Óvinir mínir ellta mig ákaflega, einsog fugl, án saka. 53. Þeir ætludu ad gjøra útaf vid mig

V. 37. *a.* Adrir! hvør er sá, sem taladi, og þad skédi (rættist) ef Drottinn skipadi ekki? V. 48. *b.* A hebr. „dóttur míns fólks".

í gryfju, og køstudu steini ofaná mig. 54. Vatnid gékk yfir høfudid á mér, eg sagdi (hugsadi): nú er útgjørt um mig! 55. Þá ákalladi eg nafn þitt, Drottinn! úr enni djúpu gryfju. 56. Þú heyrdir raust mína; byrgdu nú ekki eyru þín fyrir bœna hrópi mínu um vægd. 57. Þú varst nálægur á þeim degi, er eg ákalladi þig, þú sagdir: óttastu ekki! 58. Þú vardir, Drottinn! mál mitt, og bjargadir lífi mínu. 59. Þú sjer (nú einnin) Drottinn! undirokunina sem eg líd, dœm þú mér rétt minn! 60. Þú sjer alla þeirra hefndargyrni, og allt rádabrugg þeirra gégn mér. 61. Þú heyrir, Drottinn! hádúngar þeirra, (sem þeir sýna mér) allar rádagjørdir þeirra yfir mér; 62. umrœdur óvina minna, og daglegar rádagjørdir þeirra, vidvíkjandi mér. 63. Hvørt sem þeir sitja edur standa — géf þú því gaum! — þá er eg hádvísa þeirra. 64. Endurgjald þú þeim, Drottinn! samkvæmt handaverkum þeirra (eptir því sem þeir hafa unnid til). 65. Veittu þeim hjartans forherdíngu! bølvan þín hvíli yfir þeim! 66. Ofsœktu þá í brœdi, og afmá þú þá, svo þeir séu ekki til undir himni Drottins!

## 4. Kapítuli.

Harmakvein yfir hinni teknu borg.

1. O! hvørsu blakkt er gullid ordid! umbreytt gullid fagra! helgu (helgidóms) steinarnir liggja á sundrúng á øllum strætamótum. 2. Síons ágjætu børn, jafnvæg hreinsudu gulli, því eru þau nú metin jøfn leirkérum, handaverkum leirsmidsins? 3. Gullúlfarnir bjóda júgrid, og láta hvolpa sína sjúga, en dóttir þjódar minnar er (verdur ad vera) ómiskunsøm, einsog strútsfuglar í eydimørku. 4. Túnga brjóstbarnsins lodir vid góminn á því af þorsta, úngbørnin bidja um braud, en einginn er sem géfi þeim þad. 5. Þeir sem (ádur) bordudu krœsíngar, vanmegnast (nú) á strætunum, þeir sem uppaldir voru í skarlatsføtum, fadma nú skarnid (liggja í skarninu). 6. Afbrot þjódar minnar eru stærri enn synd Sódómu, sem afmád var, svo ad segja á augnabliki, án þess (manna) hendur kjæmu yfir hana. 7. Heitbrædur (4 Mós. 6, 2) hennar voru hreinni enn snjór, hvítari enn nýmjólk, raudleitari á ad sjá enn kórhallar, og útlit þeirra einsog Saffír. 8. Nú er útlit þeirra blakkara enn sverta, þeir verda ekki þekktir á gøtunum, skinnid á þeim er skorpid ad beinunum, þad er þornad einsog tré. 9. Sælli voru þeir, sem myrdtir voru med sverdi, heldur enn þeir, sem deya úr húngri, því þeir vanmegnast, og verda húngurmorda, vegna ávaxtarleysis akranna. 10. Vidkvæmar konur sjóda børn sín med egin høndum, þau eru (hljóta ad vera) þeim til fædslu í neyd þjódar minnar.

11. Drottinn hefir fullkomnad brædi sína, úthellt sinni brennandi reidi, tendrad eld í Síon, sem eydir undirstødu hennar. 12. Ekki hefdu konúngar jardarinnar, né allir (allrar) veraldarinnar innbúar trúad því, ad nokkur mótstødumadur og óvinur mundi komast inn um Jerúsalems borgar hlid. 13. (Svo fór þó) søkum synda spámanna hennar, og illgjørda presta hennar, sem úthelltu blódi réttlátra manna midt í henni. 14. Þeir ráfudu, einsog blindir á gøtunum, atadir blódi, því þeir gátu ekki varist ad snerta klædi þeirra a) (þ. e. þeirra sem þeir høfdu myrdt). 15. „Víkid úr vegi! (hann er) óhreinn" — hrópa menn um þá — „víkid úr vegi! víkid úr vegi! snertid (þá) ekki! því þeir eru á flótta hvar sem þeir ráfa b); á medal heidíngjanna segja menn: „þeir skulu ekki vera hérna

V. 14. a. „Því þeir gátu ekki varast ad snerta klædi þeirra", adrir: svo menn máttu ekki snerta klædi þeirra, nefnil. spámannanna og prestanna. V. 15. b. Adr: „þá þeir eru flúnir, rafa þeir líka til og frá."

leingi". 16. Auglit Drottins hefir tvístrad
þeim, hann lítur ekki framar vid þeim; eingir a)
skeyta um prestana, né miskunâ sig yfir øldúngana.

17. Amedan vér vórum ênn nú vid lídi,
horfdum vér augu vor þreytt eptir hjálp handa
oss, sem þó brást; vér stódum sífeldlega á vakt,
og mændum eptir þeirri þjód (Egyptskum) sem
ekki gat bjargad. 18. Þeir (óvinirnir) rekja
slódir vorar svo vér þorum ekki ad gánga um
vorar eigin gøtur, endalykt vor nálgast, dagar
vorir eru á førum, því endalykt vor er komin.
19. Offóknarmenn vorir eru léttari á sér enn
ernirnir í loptinu, þeir elta oss i ákafa uppá
fjøll, sitja um oss í eydimørkinni. 20. Andi
nasa vorra, (bjargvættur vor) Drottins smurdi
(Kóngurinn) vard fánginn í gryfjum þeirra,
hann sem vér søgdum um: undir hans skugga
skulum vér lifa medal þjódanna.

21. Þó þú fagnir og gledjist (hlakkir) Edoms
dóttir, sem býr í landinu Us, þá mun bikarinn
einnin koma til þín, þú munt verda drukkin og
nakin. 22. Þinni sekt er lokid, Síons dóttir,
hann (Drottinn) mun ekki optar láta herleida
þig; en hann mun vitja afbrota þinna, Edoms
dóttir! og draga skýluna af syndum þínum.

## 5. Kapítuli.

Harmaljód um þad, hvorsu sigurvegararnir misþyrmi fólkinu.

1. Minnstú, Drottinn! þess, sem yfir oss
hefir geingid! líttú ofan, og sjá hádúng vora!
2. Arfleifd vor er ordin eign óvidkomandi
manna, hús vor útlendínga (eign). 3. Vér
erum ordnir munadarleysíngjar, fødurlausir,
mædur vorar eru einsog ekkjur. 4. Vort egid
vatn drekkum vér (keypt) fyrir penínga, vorn
egin vid flytjum vér ad oss (keyptann) vid verdi.
5. Vér erum elltir yfir háls og høfud b) þó vér
erfidum oss uppgéfna, þá fáum vér ekki hvíld
ad heldur. 6. Vér hljótum ad seilast til E-
gyptskra og Assyríumanna, tilad fá sadníng af
braudi. 7. Fedur vorir syndgudu, nú eru þeir
ekki leingur til, en vér berum þeirra sekt. 8.
Þrælar drottna yfir oss, einginn er sem bjargi
oss af hendi þeirra. 9. Med lífshættu vorri
sækjum vér oss fædu, vegna sverdsins á eydi-
mørkinni. 10. Hørund vort er brunnid, eins-
og ofn, af húngursins loga. 11. Þeir smána
konurnar í Síon, meyarnar í Júdeu borgum.
12. Þeir heingja høfdíngjana med egin hønd-
um, og bera ekki vyrdíngu fyrir (þyrma ekki)
hinum øldrudu. 13. Ekkumennirnir verda ad
mala í kvørn c), og dreingirnir skjøgra undir
vidnum (vidarbyrdunum). 14. Øldúngarnir
koma ekki á þíng d), og únglíngarnir eru hættir
ad ydka hljódfærasllátt. 15. Føgnudur hjartna
vorra er horfinn, vor gledidans er ordinn ad
sorg. 16. Høfudprýdi (kóróna) vor er dottin
ofan, æ oss auma! af því vér høfum syndgast.
17. Þessvegna er hjarta vort harmþrúngid,
þess vegna eru augu vor døpur; 18. vegna
Síons fjalls, sem er í eydi, sem refirnir hlaupa yfir.

19. Þú, Drottinn! ríkir ad eilífu, þitt há-
sæti stendur øld eptir øld. 20. Því ætlar þú
ad gleyma oss æfinlega, og sleppa hendinni af
oss alla æfi vora! 21. Leid oss aptur til þín,
Drottinn! ad vér komumst heim aptur e); géf
þú oss aptur (gledi) - dag, einsog fordum!
22. Því þú hefir alvarlega útskúfad oss, og
ordid oss stórreidur.

V. 16. *a.* „Eingir skeyta um prestana," á hebr. Þeir skeyta ekki o. s. fr. V. 5. *b.* Adr: (med oki) á hálsi erum vér áfram reknir. V. 13. *c.* „Ad mala i kvørn" var þrælaverk. V. 14. *d.* Adr: „Øldúngarnir koma ekki i borgarhlidin" en borgarhlidin voru þingstødvar hjá Gydíngum. V. 21. *e.* „Ad vér komumst heim aptur." Ad.: „ad vér bætum ráð vort." Adr: „mun oss þá vegna vel, einsog ádur."

# Spámadurinn Esekíel.

## 1. Kapítuli.

*Esekíel er veglega innvígdur til hins spámannlega embættis. Gud vitrast honum í dýrdlegri sýn; hann sjer fjórar furdulegar sképnur, sem voru Kerúbar, (Kap. 10, 20), vagn med undarlega tilbúnum hjólum, og uppi á honum Gud í hásæti sínu.*

1. Á þrítugasta árinu, þann fimta dag
hins fjórda mánadar, þá eg var á medal enna
herteknu vid fljótid Kabor, opnadist himininn,
og eg sá gudlegar sjónir. 2. Þann fimta
dag þessa mánadar (þad var á fimta ári, eptir
þad ad Jójakín Konúngur var í herleidíngu
burtfluttur), 3. þá kom ord Drottins til Esekíels,
sonar Búsa kénnimanns, hjá ánni Kabor
í Kaldealandi; og hønd Drottins kom þar yfir
hann. 4. Eg sá, og sjá! stormvindur kom
frá nordri, og ský mikid, þad var einlægur eldhnøttur,
og stód af því bjarmi umhverfis, og
midt út af eldinum sást eitthvad, sem leit út
eins og lýsigull. 5. Ut af honum midjum
sýndist mynd fjøgra lifandi sképna, sem tilsýndar
líktust manni. 6. Hvør þeirra hafdi fjórar
ásjónur og fjóra vængi; 7. fætur þeirra
voru keipréttir, og ilvegur þeirra, sem uxans,
þeir voru glæfagrir, sem skygdur eirmálmur.
8. Undir vængjum þeirra voru mannshendur
fjøgra vegna, og hvør af þeim fjórum sképnum
hafdi sínar ásjónur og sína vængi. 9.
Vængir þeirra nádu saman; þær snéru sér ekki
vid á gánginum, heldur gékk hvør beint af augum
fram. 10. Asjónur hvørra fjøgra fyrir
sig voru tilsýndar (í fyrir) sem manns andlit,
hægra megin sem ljóns, vinstra megin sem
uxa, og (á bak) sem arnar. 11. Þannig voru
ásjónur þeirra; en vængir þeirra voru ofan til
útþandir, svo ad vængur einnar snart væng
annarar; med hinum tveimur vængjunum huldu
þær líkami sína. 12. Þær gengu hvør fyrir
sig beint af augum fram; þær gengu þángad
sem andinn ladadi þær, án þess ad snúast vid
í gaungunni. 13. Þær lifandi sképnur voru
tilsýndar sem eldsglædur, og logudu sem eldsskídi;
eldurinn glossadi medal þeirra, og skaut
frá sér bjarma, því leiptur gékk út af eldinum,
14. og þær lifandi sképnur hlupu fram
og aptur, eins og lopteldur.

15. Þá eg virdti þær lifandi sképnur betur
fyrir mér, þá tók eg eptir, ad eitt hjól stód á
jørdunni hjá þeim lifandi sképnum, og var þó
sem fjøgur hjól væri. 16. Hvad vídvíkur
útliti og tilbúníngi hjólanna, þá voru þau sem
Tópas-gimsteinn á ad sjá, og øll fjøgur samlík,
og sýndust vera svo tilbúin, eins og eitt
hjól stædi midt í ødru hjóli. 17. Þegar þau
gengu, þá gengu þau til allra fjøgra hlida,
án þess ad snúast vid á gánginum. 18. Hjólbaugarnir
voru ógurlega háfir, og rendur allra
fjøgra hjólanna umhverfis fullar af augum.
19. Þegar hinar lifandi sképnur gengu, þá
gengu og hjólin hjá þeim; og þegar þær lifandi
sképnur hófu sig frá jørdunni, hófu einnig
hjólin sig; 20. þángad sem andinn ladadi
þær, þángad gengu þær eptir ladan andans,
og hjólin hófust upp ásamt med þeim, því
andi hinna lifandi sképna var í hjólunum; 21.
þegar þær gengu, gengu þau einnig: þegar
þær stódu, stódu þau: þegar þær hófu sig frá
jørdunni, hófu og hjólin sig: því andi enna
lifandi sképna var í hjólunum.

22. Uppi yfir høfdum enna lifandi sképna
var því líkast, sem himinhvelfíng væri, blikandi
sem krystall, ógurlegur tilsýndar; hann þandist

út uppi yfir høfdum þeirra. 23. Undir þessum himni stódu vængir þeirra upprèttir, og tók hvør vængurinn annan; þar ad auki høfdu þær tvo vængi hvør, er þær huldu med líkami sína til beggja hlida. 24. Eg heyrdi þeirra vængja þyt, hann var sem nidur stórra vatnsfalla, sem raust hins almáttuga; þegar þær gengu, þá var þad sem dynur af mannfjølda, sem gnýr í herbúdum. Þegar þær stódu kyrrar, lètu þær vængina síga; 25. og í hvørt sinn sem raust heyrdist uppi á þeim himni, sem var yfir høfdum þeirra, þá stódu þær kyrrar og lètu nidur vængi sína. 26. Uppi á himninum yfir høfdum þeirra var ad sjá sem saffír-steinn væri, í løgun sem veldisstóll, og þar uppi á veldisstólnum, sem svo sýndist, var mynd nokkur í manns líki. 27. Sú mynd virdtist mèr því líkust, sem glóandi lýsigull væri, innanverdt og umhverfis, þar nedan frá, sem mèr þókti midtid vera, og upp eptir; en ofan frá því, sem mèr þókti midtid vera, og nidur eptir, þókti mèr hún álits sem eldur, og bjarmi allt umhverfis. 28. Bjarminn umhverfis var tilsýndar líkur boga þeim, sem í skýinu stendur, þá regn er. Þessi sýn var ímynd Drottins dýrdar, og þá eg hafdi sjed sýnina, fèll eg fram á mína ásjónu, og heyrdi eina raust mæla.

## 2. Kapítuli.

Esekíel er sendur af Gudi til hinna fráføllnu og þverbrotnu Gydínga, til ad boda þeim ord Drottins, 1 — 7. Sama er framsett undir rós, 8 — 10.

1. Røddin sagdi til mín: þú mannsins son, statt á fætur, eg vil tala vid þig. 2. Í því hann (Drottinn) taladi til mín, kom í mig andi a), sem reisti mig á fætur; og heyrdi eg hann mæla til mín. 3. Hann sagdi vid mig: þú mannsins son, eg sendi þig til Ísraelsbarna, þessa uppreistarsama lýds, sem risid hefir upp á móti mèr; þeir og forfedur þeirra hafa verid mèr mótsnúnir allt til þessa dags. 4. Hardsvírud og hardhjørtud eru þessi børn, sem eg sendi þig til; þú skalt segja til þeirra: svo segir Drottinn alvaldur; 5. hvørt sem þeir vilja heyra þig eda ekki (því þverúdug kynslód er þad), þá skulu þeir þó vita, ad spámadur er á medal þeirra. 6. En þú, mannsins son, skalt ekki hræðast þá, og ekki óttast ord þeirra, þó þeir sèu þèr andvígir og sem hvassir þyrnar, og þó þú búir eins og á medal sporddreka; þú skalt samt ei óttast ord þeirra, og eigi skèlfast fyrir augliti þeirra, hvørsu þverúdug kynslód sem þeir eru; 7. heldur tala mín ord til þeirra, hvørt sem þeir vilja heyra eda ekki; því þverúdarfullir eru þeir.

8. Þú mannsins son, heyr hvad eg segi þèr! vert ekki þverúdugur, eins og sú þverlynda kynslód; lúk upp munni þínum, og et þad sem eg fæ þèr! 9. Eg leit þá til, og sá, ad hønd var útrètt móti mèr; í henni var samanvafid bókfell; 10. høndin rakti þad sundur fyrir mèr, og var þad skrifad bædi utan og innan, voru þar á ritadir harmasaungvar, andvørp og kveinstafir.

## 3. Kapítuli.

Esekíel er bendt til, ad hugleida vel Guds ord; Gud heitir honum sínum styrk, 1 — 11; minnir hann á, hvad spámannsembættid sé mikilvægt og ábyrgdarfullt, 12 — 21; ad hann, sem vottur sannleikans, egi von á ofsóknum, og segir, hvorninn hann skuli þá hegda sér, 22 — 27.

1. Þá sagdi Drottinn til mín: þú mannsins son, et þad sem ad þèr er rètt! et þetta bókfell b), gakk sídan og tala til Ísraelsmanna! 2. Eg upplauk þá mínum munni, en hann fèkk mèr bókfellid ad eta, 3. og sagdi til mín: þú mannsins son, þú skalt renna því nidur í maga þinn, og fylla þinn kvid med því bókfelli, sem

V. 2. *a.* Kraptur frá Gudi. V. 1. *b.* Þ. e. les med athygli þad sem á bókfellinu stendur, og innræt þèr þad, v. 10.

eg fæ þér. Þá át eg þad, og var þad í munni mér sætt sem húnáng a). 4. Þá sagdi hann til mín: þú mannsins son, far nú til Ísraelsmanna, og tala mín ord til þeirra; 5. þú ert ekki sendur til þess fólks, sem hafi óljóst túngumál og torveldt ordtak; til Ísraelsmanna ertu sendur, 6. en ekki til margvíslegra lýda, er óljóst mál og torveldt ordtak hafi, hvørra ord þú ei mundir skilja; í sannleika, ef eg sendi þig til slíkra, mundu þeir veita þér áheyrslu. 7. En Ísraelsmenn munu ei vilja heyra þig, því þeir mundu jafnvel ekki veita mér áheyrn; nei, allir Ísraelsmenn hafa hørd enni og hørd hjørtu. 8. Sjá, eg skal herda þitt andlit ígégn þeirra andlitum, og þitt enni gégn þeirra ennum; 9. enni þitt skal eg gjøra sem demant, hardara enn klettinn; óttast því eigi, og skjálf ei fyrir þeirra augliti, hvørsu þvermódskufull kynslód sem þeir eru. 10. Enn fremur sagdi hann til mín: þú mannsins son, medtak í þitt hjarta øll þau ord, sem eg tala vid þig, og lát þau þér í eyrum loda; 11. far sídan til þeirra herteknu, til landsmanna þinna, sona þíns fólks, og tala til þeirra þeim ordum: „svo segir Drottinn alvaldur!" hvørt sem þeir svo vilja heyra þig eda ekki.

12. Nú hóf andinn mig upp, en á bak mér aptur heyrdi eg hátt hljómandi røddu, sem kom einhvørstadar frá: „lofud sé dýrdin Drottins!" 13. Líka heyrdi eg þyt af vængjum enna lifandi sképna, er þeir snertu hvørr annan og gáng hjólanna hjá þeim, var þad mikill gnýr. 14. En andinn hóf mig upp og hreif mig burt, og fór eg hryggur og ángurvær innvortis, því hønd Drottins lá þúngt á mér. 15. Eg kom til enna herteknu, er bjuggu í Tel-Abib vid ána Kabor, og til innbúanna þar, og var þar á medal þeirra í 7 daga, svo sem utan vid mig. 16. En ad lidnum þeim 7 døgum, taladi Drottinn til mín, og sagdi: 17. þú mannsins son, eg hefi sett þig sem vardhaldsmann yfir Ísraelsmenn; þú skalt heyra ordid af mínum munni, og vara þá vid í mínu nafni. 18. Þegar eg segi til hins ógudlega: „þú skalt deya," ef þú þá varar hann ekki vid, og talar ekki, til þess ad draga hinn ógudlega med þinni advørun frá hans vondu breytni, ad hann megi lifa: þá skal sá ógudlegi ad vísu deya fyrir sinna synda sakir, en hans blóds mun eg krefja af þinni hendi. 19. Varir þú hinn ógudlega vid, og snúi hann sér þó ekki frá sínu vonda hugarfari og frá sinni vondu breytni, þá skal hann deya fyrir sinna synda sakir, en þá hefir þú frelsad þína sál. 20. Snúi sá rádvandi sér burt frá sinni rádvendni, og gjøri órétt, þá mun eg leggja fótakefli fyrir hann: deya skal hann. Hafir þú þá eigi varad hann vid, þá skal hann ad vísu deya fyrir sinna synda skuld, án þess sú rádvendni, sem hann ádur sýndi, skuli til álita koma; en blód hans mun eg heimta af þinni hendi. 21. En varir þú hinn rádvanda vid syndinni, og syndgi hann þá ekki, þá skal hann lifa, af því hann tók advørun; og hefir þú þá frelsad þína sál.

22. Hér kom hønd Drottins yfir mig, og hann sagdi til mín: statt upp, gakk ofan í dalinn, þar vil eg tala vid þig. 23. Eg stód upp og gékk nidur í dalinn, og sjá! þar stód dýrdin Drottins; þad var hin sama dýrdarsjón, sem eg hafdi sjed vid ána Kabor, og eg féll fram á mína ásjónu. 24. En þá kom andi í mig, sem reisti mig á fætur. Hann taladi þá til mín, og sagdi: gakk, lyk þig inn í þínu húsi; 25. vita skaltu, mannsins son, ad þeir munu leggja bønd á þig, og binda þig med þeim, svo ad þú skulir ei ná ad gánga um medal þeirra; 26. og túngu þína vil eg láta tolla vid góm þér, svo þú skalt ordlaus

V. 3. *a.* Honum var ljúft ad vera erindreki Guds.

verda og ekki ná ad hirta þá med adfinníngum, því þessi kynslód er þverúdarfull. 27. En þá eg tala til þín, mun eg opna þinn munn, og þá skaltu segja til þeirra, „svo segir Drottinn alvaldur". Hvør sem heyra vill, hann heyri, og hvør sem ekki vill, sá láti þad vera; því þad er þverúdarfull kynslód.

## 4. Kapítuli.

*Esekíel afmálar þær ófarir, sem fyrir Jerúsalem lágu, umsátur borgarinnar, 1—3; sekt og hegníngu Israelsmanna og Júdafólks, 4—8; húngursneyd þá, er verda mundi í Jerúsalem, 9—17.*

1. Þú mannsins son, tak þér einn tígulstein, legg hann fyrir þig, og mála þar á borgina Jerúsalem; 2. gjør sídan hersetu móti henni, hlad víggard, hleyp upp jardhrygg gégn henni, slá herbúdum, og set víghrúta a) umhverfis hana. 3. Tak þér því næst eina járnslá, og set hana sem annan járnmúr milli þín og borgarinnar; snú svo andliti þínu gégn henni, svo hún komi undir hersetu og verdi af þér umsetin. Þetta skal vera jarteikn fyrir Israelsmenn.

4. Á medan skaltu liggja á þína vinstri hlid, og bera á henni syndir Israelsmanna; syndir þeirra ber þú í eins marga daga, og þú liggur á hlidinni, 5. og tel eg þér synda ár þeirra til jafnmargra daga, þad verda 390 dagar, á hvørjum þú skalt bera syndir Israelsmanna. 6. Þegar þú hefir fullendad þessa daga, skaltu aptur leggja þig á þína hægri hlid, og bera syndir Júdafólks í 40 daga, tel eg þér dag fyrir ár hvørt. 7. Þú skalt øndverdur standa og med útréttum armlegg til ad umsitja Jerúsalem, og þú skalt spá í gégn henni. 8. Og sjá! eg legg hønd á þig, svo þú skalt ei ná ad snúa þér af einni hlid á adra, uns þú hefir aflokid þínum umsátursdøgum.

9. Tak þér enn fremur hveiti, bygg, baunir, ertur, hirsi og rúg, kom því øllu í eitt kér, og gjør þér braud þar af; skaltu hafa þau til matar í eins marga daga, og þú liggur á annari hlid þinni, í 390 daga; 10. vega skal þér mat þann, er þú neytir, 20 sikla lód á dag, þad skal vera fæda þín allan þann tíma. 11. Mæla skal þér og vatn ad drekka, og skaltu hafa til drykkjar sjøttúng Hínar á dag, allan þann tíma. 12. Byggkøkur skaltu eta, og þær skaltu baka fyrir augum þeirra vid mannaþrekk. 13. Þannig skulu Israelsmenn, sagdi Drottinn, eta sitt óhreint braud hjá þeim þjódum, medal hvørra eg tvístra þeim. 14. Þá mælti eg: ó Drottinn alvaldur! eg hefi aldrei saurgad mig; allt í frá barnæsku minni og til þessa dags hefi eg aldrei etid þad, sem sjálfdaudt eda sundurrifid væri, og óhreint kjøt hef eg aldrei lagt mér til munns. 15. Þá sagdi hann til mín: eg vil þá leyfa þér ad baka braud þitt vid nauta tad í stad mannaþrekks. 16. En fremur sagdi hann til mín: þú mannsins son, sjá! eg mun láta verda matarskort í Jerúsalem: þeir skulu eta braudid eptir skamti med hugarángri, og drekka vatnid eptir mælir med hryllíngi; 17. svo ad þá braud og vatn er á þrotum, skal hvør upp á annan líta med skélfíngu, og horfalla fyrir sinna synda sakir.

## 5. Kapítuli.

*Esekíel bendir med hárskurdi sínum til ýmsra hørmúnga, sem yfir Gydínga mundu koma, 1—4; skýrir med berum ordum, þad sem ádur var sagt undir rós, 5—17.*

1. Þú mannsins son, tak hvassan kníf, svo beittan sem hárkníf, og lát hann gánga um þitt høfud og vánga; tak sídan metaskál og skipt hárinu í sundur: 2. einn þridjúnginn skaltu í eldi brenna í midri borginni, ad lidnum umsátursdøgunum; annan þridjúnginn skaltu saxa í smátt med knífnum; en dreif seinasta þridjúng-

V. 2. a, Eda múrbrjóta, þad eru hersetu verkfæri til ad brjóta med múrveggi.

inum út í vedrid, og enn vil eg offæria þá med brugdnu sverdi. 3. Þó skaltu þar af taka fá-ein hár, og binda þau í kápulaf þitt; 4. en aptur skaltu taka nokkur af þessum, og kasta á eldinn og brenna þau upp; og skal þadan eldur koma yfir allt Ísraels hús.

5. Þannig skal fara fyrir Jerúsalem, segir Drottinn alvaldur; eg hefi sett hana medal heidíngjanna, og ýmiss lönd í kríngum hana, 6. en hún hefir sett sig upp á móti mínum skipunum med meira gudleysi en heidíngjarnir, og móti mínum bodordum meir en löndin, sem umhverfis hana eru; því þeir (Jerúsalems menn) hafa hafnad mínum skipunum, og ekki breytt eptir mínum bodordum. 7. Þessvegna, svo segir Drottinn alvaldur, fyrst ad þér hafid verid ó-stýrilátari en heidíngjarnir, sem búa umhverfis í kríng um ydur, og eigi haldid mín bod-ord, né lifad eptir mínu lögmáli, og jafnvel ekki fylgt þeim lögum a), sem heidíngjarnir umhverfis ydur hafa: 8. þá skal eg líka, segir Drottinn alvaldur, rísa í móti þér, og láta réttlætisdóminn yfir þig gánga í augsýn heid-íngjanna, 9. og gjöra þér þad, sem eg aldrei hefi ádur gjört, og mun ekki hér eptir gjöra, sökum þíns svívirdilega athæfis. 10. Þess vegna skulu í þér fedurnir eta sín börn, og börnin fedur sína; og skal láta réttlætisdóm-inn yfir þig gánga, og dreifa leifum þínum í allar áttir. 11. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur, fyrir þad ad þú hefir saurgad minn helgidóm med öllum þínum ó-dæmum og öllum þínum svívirdíngum, þá vil eg einnig venda burt augum mínum, ekki aumkva þig og ekki vægja þér. 12. Þrid-júngurinn af þér skal deya af drepsótt og verda húngurmorda í þér midri, annar þridjúngur-inn skal fyrir sverdi falla umhverfis þig, og sídasta þridjúnginum skal eg stökkva í allar áttir, og offæria hann med brugdnu sverdi. 13. Mín reidi skal koma nidur á þeim, og skal láta mína heipt hvíla yfir þeim, og eg skal leita mér þar í hugsvölunar; þeir skulu þá sanna, ad eg Drottinn hefi talad þetta í minni vandlætíngu, þegar eg næ ad svala minni heipt á þeim. 14. Eg skal gjöra þig ad audn, ad athlægi þjódanna, sem búa í kríng um þig, í augum allra sem gánga fram hjá þér. 15. Þú skalt verda ad athlægi og hádúng, ad vidbjód og skélfíngu þeim þjódum, sem um-hverfis þig búa, þegar eg í reidi og heipt læt réttlætisdóminn yfir þig gánga med heiptarinn-ar þúngu refsíngu, (eg Drottinn hefi talad þad), 16. þegar eg hleypi á ydur húngurs-ins skjædu og eydileggjandi örfum, og sendi þær ydur til tjóns, þegar eg magna húngrid medal ydar og læt verda matarlaust hjá ydur; 17. já, húngursneyd og skjæda varga skal eg senda í móti ydur, til ad gjöra ydur barnlausa; drepsótt og blódsúthellíng skal í þér geysa, og eg skal hafa sverdid á lopti yfir þér. Eg Drottinn hefi talad þad.

V. 7. a. Náttúru lögmálinu.

## 6. Kapítuli.

Hótanir móti einstökum stodum í Gydíngalandi, hvar afgudadýrkun var helst framin, 1 — 7; apturhvarf nokkurra herleiddra Gydínga, 8 — 10; sorg spá-mannsins yfir hörmúngum Gydínga, 11 — 13.

1. Ord Drottins kom til mín svo látandi: 2. þú mannsins son, snú þínu augliti gégn Ísraels fjöllum, og spá í móti þeim, 3. og seg: heyrid, Ísraels fjöll, ord Drottins hins alvalda! Svo talar Drottinn alvaldur til fjall-anna og hædanna, til hvammanna og dal-anna: sjá! eg læt sverdid koma yfir ydur, og eg skal eyda ydar hörgum; 4. ydar ölturu skulu í eydi lögd verda, og ydar godalíkneski-jur í sundur brotnar; eg skal slá ydur í hel, og kasta þeim vegnu nidur fyrir ydar skurdgod:

5. já, hræum Israelsmanna skal eg varpa fyrir
skurdgod þeirra; ydar beinum skal eg dreifa
umhverfis um ydar ølturu. 6. Svo lángt sem
ydar bygd nær, skulu borgirnar í eydi lagdar
verda, og hørgarnir gjøreyddir, svo ad — þá
ydar ølturu eru í eydi løgd og umturnud, ydar
skurdgod fundur-brotin og ad aungvu gjørd, ydar
godalíkneskjur mølvadar, ydar handaverk afmád,
7. og valkøsturinn liggur midt á medal ydar, —
ad þér þá skulud vidur kénna, ad eg em Drottinn.

8. Þegar þér verdid útdreifdir um løndin,
skal eg samt láta nokkura af ydur undan sverd-
inu komast, og eptir verda á lífi medal heid-
íngjanna; 9. þeir af ydur, sem undan komast,
skulu þá minnast mín, þar sem þeir lifa í her-
leidíngu medal þjódanna, þegar eg hefi beygt
þeirra blótfíkna hjørtu, sem eru ordin mér frá-
hverf, og þeirra blótfúsu augu, sem mæna eptir
skurdgodunum: þá skal þeim bjóda vid sjálfum
sér, vegna þeirra illverka, sem þeir hafa drýgt,
og allra þeirra svívirdínga, sem þeir hafa fram-
id: 10. þá skulu þeir vidkannast, ad eg em Drott-
inn, og ad eg hefi ekki talad þar um neinum
hégóma ordum, ad láta þá rata í þessa ógjæfu.

11. Svo segir Drottinn alvaldur: slá þú
saman høndum þínum; stappa nidur fæti þín-
um, og kalla „vei" yfir øllum þeim illu sví-
virdíngum Israelsmanna, vegna hvørra þeir
hljóta ad falla fyrir sverdi, húngri og drepsótt.
12. Sá sem fjær er, skal af drepsótt deya;
sá sem nær er, fyrir sverdi falla; og sá sem
þá verdur eptir og hlíft hefir verid, hann skal
af húngri deya, því eg vil láta mína gjørvalla
heipt koma nidur á þeim. 13. Þér skulud þá
vidurkénna, ad eg em Drottinn, þegar valkøst-
irnir liggja midt á medal skurdgodanna, um-
hverfis ølturun, á hvørri gnæfandi hæd, á øll-
um fjallatindum, undir hvørju grænutré, undir
hvørri laufgadri eik, hvar þeir høfdu fært sæt-
an ilm í fórn fyrir allskonar skurdgodum; 14.
þegar eg útrétti mína hønd í móti þeim, og
gjøri landid ad audn og øræfum, ad enn þá
meiri eydimørk en Díbla a) er, þá skulu þeir
vidurkénna, ad eg em Drottinn.

V. 14. *a.* Ottaleg eydimørk í Móabslandi.

## 7. Kapítuli.

Esekíel bodar Gydíngum, ad sá dagur sé fyrir hendi, ad Gud muni vægdarlaust refsa þeim þverúdarfulla lýd, med því ad láta Kaldea inntaka Jerúsalem, 1—11; lýsir rádleysu, ángist og hugleysi fólksins, medan óvinirnir umsátu borgina, 12—18; allar gérsemar skyldu verda óvinunum ad herfangi, 19—22; og fólkid í Júdalandi flyrjast burt í fjøtrum, 23—27.

1. Ord Drottins kom til mín svo mælandi:
2. þú mannsins son, svo segir Drottinn alvald-
ur um Israelsland: endirinn kémur, já, kém-
ur yfir fjórar álfur landsins; 3. nú eru þau
endalokin komin yfir þig, ad eg sendi mína reidi
móti þér, dæmi þig eptir þinni hegdun, og læt
allar þínar svívirdíngar nidur á þér koma. 4.
Eg skal ekki vægja þér, og aungva medaumkv-
un hafa, heldur láta þína hegdun nidur á þér
koma, og allar þínar svívirdíngar skulu á þér
bitna, svo ad þér skulud vidurkénna ad eg em
Drottinn. 5. Svo segir Drottinn alvaldur: ó-
gjæfan kémur, já, dæmalaus ógjæfa! 6. endirinn
kémur, endirinn kémur, hann er vaknadur uppi yfir
þér, líttu á, hvar hann kémur; 7. þad tekur til ad
birta af degi yfir þér, þú innbúi landsins, tím-
inn kémur, sá dagur er í nánd, sem færir med
sér ófrid, en eingin gledilæti á fjøllunum. 8.
Nú mun eg brádum úthella minni heipt yfir
þig, og láta mína gjørvalla reidi yfir þig dyn-
ja; eg skal dæma þig eptir þinni hegdun, og
láta allar þínar svívirdíngar á þér lenda. 9.
Eg skal ekki vægja, og einga medaumkvun hafa;
eg skal gjalda þér eptir breytni þinni, og þín-
ar svívirdíngar skulu nidur á þér koma, svo ad
þér skulud vidurkénna, ad eg Drottinn er sá

sem typtir. 10. Líttu á dagsbrúnina, horfdu
á, hvar hún kémur! morgunrodinn gengur upp!
Vøndurinn a) blómgast, drambsemin þróast;
11. ofríkismadurinn er ordinn svo magnadur,
ad hann gétur verid vøndur á þá ógudlegu:
aungvum þeirra skal vægt verda, aungvum múga-
manni, aungvum høfdíngja, ekkért skal eptir
verda af yfirlæti þeirra.
12. Sá tími kémur, sá dagur er í nánd,
ad kaupandinn skal ekki feginn verda, og sel-
jandinn ekki ógledjast; því reididómurinn geng-
ur yfir gjørvallan fólksmúginn. 13. Seljand-
inn skal ei aptur ad seldu komast, jafnvel þó
honum endtist líf til b); því vitranin, sem kém-
ur fram á gjørvøllum lýdnum, skal ekki ad hé-
gómamáli verda, og einginn, sem lifad hefir
ógudlegu lífi, skal vita sig óhultan. 14. Þó
herblástur sé blásinn og alla vega umbúist, mun
samt einginn hætta sér í orustuna; því mín
reidi gengur yfir gjørvallan múginn. 15. Sverd-
id mun geysa utanborgar, húngur og drepsótt
innanborgar; sá sem er á akri, skal fyrir sverdi
falla, og þeim, sem innan borgar er, skal húng-
ur og drepsótt eyda. 16. Komist nokkurir
undan, munu þeir til fjalla flýja, og vera þar,
allir kveinandi, hvørr yfir sínum misgjørdum,
eins og kurrandi dúfur í dølum; 17. allar hend-
ur munu lémagna verda, og øll kné ida sem
vatn; 18. þeir munu íklædast hárklædum, hrædsl-
an mun hylja þá, skømmin mun sitja á hvørju
andliti, og hvørt høfud vera skøllótt.
19. Silfri sínu munu þeir varpa út á strætin,
og horfa á gull sitt med vidbjód; þeirra silfur og
gull mun ei fá frelsad á reidídegi Drottins;
þeir munu ei géta sefad húngur sitt eda fyllt
kvid sinn med því; þad vard þeim ad fóta-
kéfli til hrøsunar: 20. því þad sem þeim var
géfid til prýdi og búníngsbótar, því vørdu þeir
til dramblætis, og gjørdu þar af vidurstyggi-
legar og svívirdilegar godalíkneskjur; þessvegna
læt eg þá fá vidbjód á því. 21. Eg skal
selja þad útlendum í hendur til herfángs, þeim
verstu mønnum á jørdunni til hlutskiptis, og
þeir skulu vanhelga þad; 22. eg skal snúa mínu
augliti frá þeim, og þeir skulu vanhelga minn
helgidóm: ræníngjar skulu brjótast inn í hann
og vanhelga hann.
23. Bú þú til fjøtur, því landid er fullt af
óbótaverkum, og borgin af rángindum. 24.
Eg skal stefna híngad þeirri verstu þjód til þess
ad kasta eign sinni á hús þeirra; eg skal drepa
nidur dramblæti hinna sterku, og þeirra helgi-
dómar skulu verda vanhelgadir. 25. Þegar ó-
gjæfan ad stedjar, munu þeir leita fridar, en
þá er hvørgi frid ad finna; 26. eitt óhappid
mun ødru fylgja, og hvør ótídindin koma á fæt-
ur ødrum. Þeir munu leita vitrana hjá spá-
mønnunum, en þá mun ekkért løgmál til vera
hjá kennimønnunum, og eingin ráddeild hjá for-
stjórunum; 27. Konúngurinn mun verda sorg-
bitinn, og landshøfdínginn sinnulaus, og lands-
fólkinu munu fallast hendur. Eptir breytni
þeirra skal eg med þá fara, og eptir þeirra
verdleikum dæma þá, svo þeir kannist vid, ad
eg em Drottinn.

## 8. Kapítuli.

Esekíel er burtfluttur frá Babýlon til Jerúsalems, 1—3; sjer margskonar hótustu afgudadýrkun, sem vidgékkst í forgardi musterisins, 4—16; Gud hótar Gydíngum hegníngu þar fyrir, 17—18.

1. Þad var á sjøtta ári, þann fimta dag
hins sjøtta mánadar, þá eg sat í húsi mínu og
forstjórar Júda sátu frammi fyrir mér, ad
hønd Drottins hins alvalda kom þar yfir mig.
2. Og sjá, eg sá mannsmynd, tilsýndar sem
eld; þar í frá, sem mér þóktu lendar hans vera,

V. 10. *a* Nebúkadnesar, Babýlonar Kóngur. V. 13. *b*. Þ. e. þó hann lifi til fagnadar ársins, þá sérhvørr fekk aptur þann akur, sem hann hafdi selt, 3 Mós. 25, 13.

og niður eptir, var eins og eldur; en frá lendum hans og upp eptir sást bjarmi, eins og ljómaði af lýsigulli. 3. Hann útrétti líkast sem hønd væri, og tók í høfuðhár mitt, hóf andinn mig þá upp, og flutti mig milli himins og jarðar, í guðlegum sjónum, til Jerúsalemsborgar að norður-hliði innra forgarðsins, hvareð skapraunar — storkunar — móðgunar-líkneskjan a) stóð, sú er uppvakti Drottins vandlætingu.

4. Og sjá! hér birtist hin sama dýrðarsjón Ísraels Guðs, eins og eg hafði sjeð í dalnum. 5. Hann sagði til mín: þú mannsins son, hef upp þín augu, og lít til norðurs. Eg hóf upp mín augu og leit til norðurs, og sá, að storkunar-líkneskið stóð norðanmegin við altarishliðið, rétt þar sem inn er gengið. 6. Hann sagði þá til mín: þú mannsins son, sjer þú hvað þessir gjøra? sjer þú þær stóru svívirðíngar, sem Ísraelsmenn hafa hér í frammi, til þess að byggja mér út úr mínum helgidómi? En þú skalt enn fá að sjá stærri svívirðíngar. 7. Nú leiddi hann mig að forgarðshliðinu, og þá sá eg, að þar var smuga nokkur inn í vegginn. 8. Hann sagði til mín: þú mannsins son, graf þú í gégnum vegginn. Eg gróf í gégnum vegginn, og sjá! þar voru dyr á. 9. Hann sagði þá til mín: gakk inn, og sjá þær vondu svívirðíngar, sem þeir hafa hér í frammi. 10. Eg gékk inn og litaðist um, og sá, að þar voru ristnar allt umhverfis á vegginn ýmsar myndir orma, viðbjóðslegra kvikinda og ýmsra skurðgoða, sem Ísraelsmenn blótuðu; 11. „frammi fyrir þeim stóðu 70 menn af forstjórum Ísraelsmanna, þar á meðal Jasanía Saffansson, og héldt hvørr þeirra á reykelsiskéri í hendi sér, og sté þar upp af ilmandi reykelsis mokkur. 12. Hann sagði þá til mín: þú mannsins son, sjer þú hvað forstjórar Ísraelsmanna hafast að í myrkrinu, hvør í sínu myndum prýdda herbergi? þeir segja: Drottinn sjer oss ekki, Drottinn hefir yfirgéfið landið. 13. Og enn sagði hann til mín: þú skalt enn sjá stærri svívirðíngar, sem þeir hafa í frammi. 14. Hann leiddi mig þá að hinu nyrðra hliði Drottins-húss, og sjá! þar sátu konur, sem grétu yfir Tamús b). 15. Þá sagði hann til mín: sjer þú þetta, mannsins son? þú skalt enn fá að sjá stærri svívirðíngar, en þessar. 16. Hann leiddi mig þá inn í innra forgarð Drottins-húss; og sjá! fyrir musteris dyrum Drottins, milli forhússins og altarisins, stóðu 25 menn, sem snéru bøkum við musteri Drottins, og horfðu á móti austri, og tilbáðu þá upprennandi sól.

17. Þá sagði hann til mín: sjer þú þetta, mannsins son? er það ekki nóg, að Júdamenn hafi í frammi allar þær svívirðíngar, sem þeir hér fremja, þó þeir ekki þar á ofan fylli landið með ránglindum, og láti ekki af að reita mig til reiði? En, þeir reka kvistinn upp í nasir sér. 18. Eg skal líka láta mína reiði koma niður á þeim; eg skal ekki vægja, og aungva meðaumkun hafa; þó þeir kalli með hárri raust fyrir mínum eyrum, þá skal eg þó ekki heyra til þeirra.

## 9. Kapítuli.

Guð lætur ressa þeim óguðlegu innbúum Jerúsalemsborgar með sverði, en þeim, sem betur voru viljaðir, er hlíft; dýrðin Drottins býr sig til að yfirgéfa það vanhelgaða musteri, 1—7; Esekíel biður borgarmønnunum vægðar, en það tjáir ekki, 8—11.

1. Nú kallaði hann með hárri raust, að mér áheyranda, og sagði: láti þá fram koma, sem veita skulu heimsókn á borgina, og hafi hvørr sitt drápsverkfæri í hendi! 2. Þá komu sex menn inn um efra norðurhliðið, og hafði hvørr þeirra eyðileggíngar verkfæri í hendi sér; og

V. 3. *a.* Líkneski Baals, 2 Kóng. 21, 3. eða Móloks. V. 14. *b.* Tamús, ástargoð. V. 17. Málsháttur! þeir baka sér sjálfir hegníngu.

enn var á medal þeirra einn madur, sem var líni
klæddur, og hafdi skriffæri vid hlid sér; þeir
gengu inn, og numu stadar vid eiraltarid. 3.
En dýrd Ísraels Guds fluttist nú, hafin upp
af þeim Kerúbum, yfir hvørjum hún var, ad
dyra=þrøskuldi musterisins; þá kalladi hann á
þann mann, sem var líni klæddur og hafdi skrif=
færin vid hlid sér: 4. Gakk, sagdi Drottinn til
hans, midt í gégnum borgina, midt í gégnum
Jerúsalem, og set teikn á enni þeirra manna sem
andvarpa og kveina yfir þeim margvíslegu sví=
virdíngum, sem vidgángast innan borgar. 5.
En til hinna mælti hann, mér áheyranda: gáng=
id eptir honum gégnum borgina, og høggvid
nidur! eingu skulud þér vægja, og aungva med=
aumkvun hafa! 6. Gamalmennum, úngmenn=
um, meyum, børnum, konum skulud þér bana
og eyda; en aungvan skulud þér snerta af þeim,
sem teiknid bera: og takid fyrst til á mínum
helgidómi. Þeir byrjudu því fyrst á þeim for=
stjórum, sem voru fyrir framan musterid. 7.
Og enn sagdi hann til þeirra: horfid ekki í ad
saurga musterid, og fyllid forgardinn med manna=
búkum; gángid nú út. Þeir gengu þá út, og
hjuggu nidur mannfólkid í borginni.

8. Medan á mannslaginu stód, var eg einn
eptir ordinn; féll eg þá fram á mína ásjónu,
kalladi og sagdi: alvaldi Drottinn, viltu þá gjør=
eyda øllum eptirleifum Ísraels, þar sem þú út=
eys þinni reidi yfir Jerúsalem? 9. Hann svar=
adi mér: misgjørd Ísraelsmanna og Júdafólks
er helst til stór, landid er uppfyllt af blódi, og
borgin af ránglæti; því þeir segja: Drottinn
hefir yfirgéfid landid, Drottinn sjer oss ekki. 10.
Þess vegna skal eg ekki heldur vægja, og einga
medaumkvun hafa; eg læt athæfi þeirra koma
þeim sjálfum í koll nidur. 11. Þá kom
sá línklæddi madur, sem hafdi skriffærin vid
hlid sér, aptur, og sagdi: eg hefi gjørt eins
og þú baudst mér.

# 10. Kapítuli.

Gud býdur ad eydileggja Jerúsalemsborg med eldi, 1 — 8; dýrd Drottins flytur sig algjørlega út af musterinu, 9 — 22.

1. Eg sá, og sjá! á himni þeim, er var
yfir høfdum Kerúbanna, var því líkast sem
saffírsteinn væri, tilsýndar sem veldisstóll, sem
var ad sjá uppi yfir þeim. 2. Nú sagdi hann
til hins línklædda manns: gakk inn á millum
hjólanna undir Kerúbunum, og tak fullar lúkur
þínar af glædum milli Kerúbanna, og dreif þeim
út yfir borgina. Og hann gékk þar inn, ad
mér ásjáanda. 3. En Kerúbarnir stódu hægra
megin vid musterid, þegar madurinn gékk inn,
og hafdi skýmokkur uppfyllt innra forgardinn;
4. nú var dýrd Drottins hafin af Kerúbunum
upp yfir þrøskuld húsins, vard húsid þá fullt
af skýmokk, en forgardurinn fylltist ljóma af
dýrd Drottins, 5. og vængjaþytur Kerúbanna
heyrdist allt til hins ytra forgards, eins og
raust Guds almáttugs, þá hann talar. 6. Nú
sem hann hafdi bodid þeim línklædda manni,
og sagt: tak eld út á medal hjólanna og í
milli Kerúbanna, þá gékk hann til, og stad=
næmdist hjá einu hjólinu. 7. Þá rétti einn
Kerúbanna hønd sína ad þeim eldi, sem í
medal var Kerúbanna, tók þar af, og fékk í
hendur enum línklædda manni. Hann tók vid,
og gékk burt; 8. en hjá Kerúbunum, und=
ir vængjum þeirra, sást eitthvad sem líktist
mannshendi.

9. Eg leit til, og vard fjøgra hjóla var
hjá Kerúbunum, sitt hjól hjá hvørjum Kerúb;
hjólin voru tilsýndar sem Tópas=gimsteinn,
10. øll fjøgur voru eins á ad sjá, og var sem
eitt hjól gengi midt í gégnum annad hjól; 11.
þegar þau gengu, gátu þau gengid til allra
fjøgra hlida, án þess ad snúast vid á gáng=
inum; því þau gengu í þá átt, sem høfud
Kerúbsins horfdi, og fylgdu honum, en snérust

ekki vid á gánginum. 12. Allur líkami Kerúbanna, bøk þeirra, hendur og vængir, og svo hjólin, allra fjøgra hvørs fyrir sig, voru alsett augum umhverfis; 13. hjólin voru køllud mér áheyranda Galgal a). 14. Hvørr Kerúbanna hafdi fjøgur andlit, þad fyrsta var Kerúbs andlit, annad manns andlit, þridja ljóns, fjórda arnar. 15. Kerúbarnir hófu sig upp: þad voru sømu lifandi sképnur, sem eg hafdi sjed vid ána Kabor; 16. þegar Kerúbarnir gengu, þá gengu og hjólin hjá þeim, og þegar Kerúbarnir hófu upp vængi sína, til þess ad lypta sér frá jørdunni, þá snérust ekki hjólin vid, heldur voru kyrr hjá þeim; 17. stædi þeir kyrrir, stódu þau einnig; hæfi þeir sig upp, hófu þau sig og upp ásamt þeim, því andi enna lifandi sképna var í þeim. 18. Dýrdin Drottins hafdi sig nú burt af þrøskuldi húsßins, standandi uppi yfir Kerúbunum; 19. en Kerúbarnir lyptu upp vængjum sínum, hófu sig frá jørdunni, ad mér ásjáanda, og fóru út, og hjólin hjá þeim; þeir numu stadar vid eystra hlid musterisins, og dýrd Israels Guds uppi yfir þeim. 20. Þad voru þær sømu lifandi sképnur, sem eg hafdi sjed undir Israels Gudi vid ána Kabor; og eg þekti, ad þad voru Kerúbar: 21. því þeir høfdu fjøgur andlit og fjóra vængi hvørr, og undir vængjum sér, eitthvad sem líktist mannshøndum; 22. og hvad andlits skapnadinum vidvék, þá voru þau ásýnis eins og hin sømu og þau andlit, er eg hafdi sjed vid ána Kabor; hvørr þeirra gékk beint af augum fram.

## 11. Kapítuli.

Esekíel er bodid ad kunngjøra þeim ógudlegu Júda høfdíngjum hegníngardóm Guds, 1—12; Gud heitir þeim herleiddu líkn, ef þeir láti betrast vid mótlætid, 13—21; dýrdarsjónin lídur burt frá augum Esekíels, og hann verdur aptur burtfluttur til Kaldealands, 22—25.

1. Nú hóf andinn mig upp, og flutti mig til eystra musterishlidsins, sem horfir móti sólaruppkomu stad; þar stódu fyrir dyrum hlidsins 25 menn, og á medal þeirra sá eg Jasanía Assúrsson og Platía Benajason, høfdíngja fólksins. 2. Þá sagdi Drottinn til mín: þú mannsins son, þad eru þessir menn, sem hafa íllt í huga og ráda mønnum óheilt í þessari borg; 3. þeir segja: enn þá er ekki svo nærri stýrt; sparid ei ad reisa húsabyggíngar: borgin er kétillinn, en vér erum slátrid b). 4. Spá þú þessvegna móti þeim, spá þú, mannsins son! 5. Og andi Drottins kom yfir mig, og hann sagdi til mín: seg þú: Svo segir Drottinn: þér segid satt c), Israelsmenn! Eg þekki ydar hugrenníngar; 6. þér aukid manndrápin í þessari borg, þér fyllid stræti hennar med vegnum mønnum. 7. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur svo: þeir sem þér hafid í hel slegid og látid liggja í borginni, þeir eru slátrid, og hún er kétillinn; en ydur skal eg færa út úr henni. 8. Vid sverdid erud þér hræddir, og sverdid skal eg láta yfir ydur koma, segir Drottinn alvaldur. 9. Eg skal færa ydur út af borginni, selja ydur útlendum mønnum í hendur, og láta fram á ydur koma hvad rétt er. 10. Fyrir sverdi skulud þér falla, á landamerkjum Israels skal eg dæma ydur, og þér skulud vidurkénna ad eg em Drottinn. 11. Borgin skal ekki verda ydur ad katli, og þér ekki honum ad slátri; vid landamerki Israels skal eg dæma ydur. 12. Þá skulud þér vidurkénna, ad eg em Drottinn, hvørs løgum þér ekki hafid hlýdt, hvørs bodum þér ekki hafid gégnt, heldur

V. 13. *a*. Þ. e. skjót sem vindur eda hvirfilbylur. V. 3. *b*. Þ. e. øllu er enn óhætt fyrir óvinunum, vér skulum vera hér kyrrir í borginni, eins og slátur í katli, vér skulum lifa hér og deya. V. 5. *c*. Nefnil: þau ord: „borgin er kétillinn, en vér erum slátrid", en þó í ødrum skilníngi, en þér hugsid.

lifad á heidíngja vísu, þeirra er umhverfis ydur búa.
13. Medan eg þannig spádi, dó Platía Benajason; þá féll eg fram á mína ásjónu, kalladi
upp hárri røddu, og sagdi: ó, alvaldi Drottinn,
viltu þá med øllu eyda øllum eptirleifum Ísraelsmanna? 14. Þá kom Drottins ord til mín
svolátandi: 15. Þad eru þínir brædur, ættmenn
þínir og náfrændur, já, gjørvallur Ísraels lýdur, eins og hann er sig til, um hvørja innbyggjendur Jerúsalemsborgar segja: burt med
ykkur frá Drottni! landid er okkur géfid til eignar. 16. Þar fyrir seg þú: Svo segir Drottinn alvaldur: þó eg hafi rekid þá burt til heidíngjanna, þó eg hafi dreift þeim út um løndin, þá skal eg þó vera þeim helgidómsstadur
um stundar sakir í þeim løndum, sem þeir eru
komnir til. 17. Þess vegna skaltu segja: Svo
segir Drottinn alvaldur: eg vil safna ydur saman frá þjódunum, og samansafna ydur af þeim
løndunum, sem þér erud burtdreifdir í, og géfa
ydur Ísraelsland. 18. Þángad skulu þeir komast, og útríma þadan øllum svívirdíngum og
vidurstygdum. 19. Eg vil géfa þeim eindrægt
hjarta, og koma nýum anda í þeirra hjartans
grunn; steinhjartad mun eg burttaka úr brjósti
þeirra, og géfa þeim aptur annad af holdi a),
20. svo ad þeir breyti eptir mínu løgmáli, og
haldi mín bodord og lifi eptir þeim; þá skulu
þeir vera mitt fólk, og eg skal vera þeirra Gud.
21. En þeir sem hneigjast til svívirdínga og
snúa hjørtum sínum til andstyggilegra skurdgoda, þeim skal eg láta athæfi sitt í koll koma,
segir Drottinn alvaldur.
22. Nú hófu Kerúbarnir vængi sína, og
hjólin fylgdu þeim, og dýrd Ísraels Guds
var uppi yfir þeim. 23. Þá hóf dýrdin Drottins sig upp frá borginni, og stadnæmdist á því
fjalli, sem er fyrir austan borgina b). 24.
En andinn hóf mig upp, og flutti mig í sýninni, í anda Guds, til enna herleiddu í Kaldealandi; og sú sýn, sem eg sá, leid upp frá
mér; 25. og eg sagdi þeim herleiddu frá
øllu því, sem Drottinn hafdi opinberad mér.

## 12. Kapítuli.

Esekíel bendir til, hvørsu Sedekías Konúngur skyldi flýa um nótt frá Jerúsalem, og Gydíngar verda herleiddir, 1 — 16; afmálar hormúng og neyd hinna umsetnu Gydínga á undan herleidíngunni, 17 — 20; hrindir spotti hinna vantrúudu, sem héldu ad Guds hótanir mundu ekki rætast, 21 — 28.

1. Ord Drottins útgékk til mín svo látandi: 2. mannsins son, þú býr á medal þvermódskufulls lýds, sem hefir augu til ad sjá
med, en sjer þó ekki, eyru til ad heyra med,
en heyrir þó ekki; svo þverúdarfullur er þessi
lýdur. 3. Þú mannsins son, haldt á búnadi
þínum, og far af stad í augsýn þeirra á bjørtum degi; þú skalt flytja burt þadan sem þú
býr, ad þeim ásjáendum, og fara eitthvad annad; því vera má, ad þeir vakni vid þetta, þó
þeir séu þverúdarfullir. 4. Þú skalt færa út
faung þín, svo sem annan flutníngs farángur,
í augsýn þeirra á bjørtum degi, en sjálfur
skaltu út fara um kvøldid ad þeim ásjáendum,
eins og þá útlegdarmenn flýa úr landi burt.
5. Þú skalt brjóta hlid á vegginn í augsýn
þeirra, og færa faung þín þar út um; 6. þú
skalt lypta þeim á bak þér fyrir augum þeirra,
og bera þau út í røkkrinu; þú skalt byrgja
fyrir andlit þitt, svo þú sjáir ekki landid: því
eg hefi ætlad þig til ad vera fyrirmyndarteikn
fyrir Ísraelslýd. 7. Eg gjørdi sem mér var
bodid: eg bar út faung mín, svo sem annan
flutníngs farángur, á bjørtum degi; um kvøldid braut eg hlid á vegnum med hendi minni,
og bar burt faung mín í røkkrinu á baki mér
fyrir allra augum. 8. Morguninn eptir út-

V. 19. a. Annad mýkra og audsveigdara til þess sem gott er. V. 23. b. Á vidsmjørsvidar fjallinu.

gékk ord Drottins til mín svo látandi: 9. þú mannsíns son, hafa ekki Ísraelsmenn, þessi þverbrotna kynslód, spurt þig, hvad þetta eigi ad þýda? 10. Þú skalt svara þeim: Svo segir Drottinn alvaldur: þessi byrdi merkir høfdíngjann í Jerúsalem, og alla Ísraelsmenn, sem þar búa; 11. seg enn fremur: eg em fyrirmindar teikn fyrir ydur; þad sem eg hefi hér gjørt, skal fram vid þá koma: þeir skulu fara í útlegd, sem herleiddir menn; 12. landshøfdíngi þeirra skal út fara í myrkri med bagga á baki; hlid skal brotid verda á vegginn, til ad koma honum þar út um: hann skal byrgja sitt andlit, svo hann ekki nái ad renna auga til landsins. 13. En eg mun kasta yfir hann neti mínu, svo hann skal veiddur verda í mínum veidarfærum; eg skal flytja hann til Babels í Kaldealandi, þad land skal hann ekki sjá, og þó skal hann þar deya a); 14. øllum þeim, sem eru í kríngum hann, fullthýngjurum hans og hans gjørvøllum herflokkum mun eg tvístra í allar áttir, og vera á hælum þeim med brugdnu sverdi. 15. Þeir skulu þá vidkannast, ad eg em Drottinn, þegar eg tvístra þeim medal þjódanna, og dreifi þeim út um løndin. 16. Fáeina af þeim vil eg láta undankomast undan sverdinu, húngrinu og drepsóttinni, til þess ad þeir kunngjøri allar sínar svívirdíngar medal þeirra þjóda, sem þeir koma til, svo þær vidurkénni, ad eg em Drottinn.

17. En fremur taladi Drottinn til mín svo látandi ordum: 18. þú mannsíns son, et þitt braud med hrædslu, og drekk þitt vatn med skjálfta og ángist, 19. og seg til fólksins í landinu: Svo segir Drottinn alvaldur um þá sem búa í Jerúsalem í Ísraelslandi: þeir skulu eta braud sitt med hugarángri, og drekka sitt vatn med hrillíngi; því landid skal sviptast øllum sínum gjædum, fyrir sakir þeirrar rángsleitni, er allir þess innbúar í frammi hafa; 20. bygdar borgir skulu í eydi leggjast, og landid ad øræfum verda. Þá skulu þeir vidkannast, ad eg em Drottinn.

21. En fremur taladi Drottinn til mín þessum ordum: 22. þú mannsíns son, hvørt er þad ordtak, sem þér hafid um Ísraelsland, er þér segid: tíminn dregst, allir spádómar eru marklausir? 23. Seg þar fyrir til þeirra: Svo segir Drottinn alvaldur: eg mun gjøra enda á þessari spélni, og slíkt ordtak skal ekki framar stad hafa í Ísrael. Seg þeim þar í móti: tíminn er nálægur, sjónirnar rætast; 24. því hér eptir skal einginn hégóma sýn eda hræsnis-spádómur stad hafa medal Ísraelsmanna; 25. því ad eg Drottinn tala: þad ordid, sem eg tala, þad skal rætast, og þar skal einginn frestur á verda; já, á ydar døgum, þú mótsnúna kynslód, skal eg tala ordid og framkvæma þad, segir Drottinn alvaldur. 26. En fremur taladi Drottinn til mín á þessa leid: 27. þú mannsíns son, sjá! Ísraelsmenn segja: hún á sér lángann aldur, sú sýn, er þessi madur sjer, hann spáir lángt fram í ókomnar tídir. 28. Þar fyrir seg þeim: Svo segir Drottinn alvaldur: á aungvu mínu ordi skal leingur frestur verda; þad ord, sem eg tala, skal verda framgengt, segir Drottinn alvaldur.

## 13. Kapítuli.

Esekíel bodar lýgispámønnum (1—16). og lýgispákonum (17—23) reidi Guds.

1. Drottinn taladi til mín, og sagdi: 2. þú mannsíns son, spá þú gégn spámønnum Ísraels, sem fara med spár; seg til þeirra, sem spá af sjálfum sér: heyrid ord Drottins: 3. Svo segir Drottinn alvaldur: vei þeim

V. 13. a. Um þad, hvørsu Sedekías Júda Kóngur flúdi út af borginni, vard aptur handtekinn, blindadur og fluttur burt til Babýlonar sjá Jer. 39, 4—7.

heimskulegu spámønnum, sem fara eptir sjálfs síns hugarburdi, án þess þeir fái nokkura vitran. 4. Þínir spámenn, Ísrael, eru sem refar í rústabrotum; 5. þér gángid ekki fram í vígskørdin, og hladid aungvan virkisgard í kríng um Ísraels hús, til þess ad standast í strídinu á degi Drottins; 6. þeir fara med hégómasjónir og lýgispádóma, og segja: „þetta segir Drottinn", en þótt Drottinn ekki hafi sendt þá, og telja svo fólki trú um, ad ord þeirra muni rætast. 7. Eru þad ekki hégómasjónir, sem þér sjáid, og lýgispádómar sem þér farid med? og þó segid þér, „þetta segir Drottinn", en þótt eg hafi ekki sagt þad. 8. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur svo: med því þér talid hégóma og spáid lygum, þá skal eg rísa á móti ydur, segir Drottinn alvaldur. 9. Mín hønd skal vera upp í móti þeim spámønnum, sem fara med hégómasjónir og lýgispádóma: þeir skulu ekki vera í samkundu míns fólks, þeir skulu ekki vera skrádir í manntal Ísraelslýds, og ekki koma inn í Ísraelsland; þeir skulu fá ad sanna, ad eg em Drottinn alvaldur: 10. og þad þessvegna, ad þeir leida mitt fólk í villu, er þeir segja, ad øllu sé óhætt, enn þótt ekki sé svo; og þegar fólkid hledur upp einhvørn múrvegginn, þá eru þessir til stadar, og rída kalki á hann. 11. Seg þú kølkurum þessum: múrinn mun hrapa, því steypiregn mun koma: þér, haglsteinar, skulud nidur hrynja, og stormbylur skal á detta a); 12. og þegar veggurinn svo hrynur nidur, mun þá ekki verda til ydar sagt: hvar er nú kalkid, sem þér ridud á vegginn? 13. Þess vegna segir Drottinn alvaldur svo: í minni heipt skal eg láta stormbyl á detta, í minni brædi skal steypiregn á koma, og haglsteinar nidur hrynja í minni reidi, til algjørrar umturnunar. 14. Eg skal nidurbrjóta þann vegginn, sem þér hafid kalkad, bilta honum til jardar, svo ad undirstada hans skal koma í ljós; og þegar hann hrynur, skulud þér verda á milli og tortýnast, og reyna svo, ad eg em Drottinn. 15. Eg skal láta mína gjørvalla heipt nidurkoma á múrveggnum, og á þeim, sem ridu kalki á hann; og þá mun verda sagt um ydur: múrinn er horfinn, og horfnir þeir sem kølkudu hann. 16. Þannig skal fara fyrir Ísraels spámønnum, sem spá fyrir Jerúsalem, og þykjast sjá vitranir, ad borginni sé óhætt, en þótt ekki sé svo, segir Drottinn alvaldur.

17. Þú mannsins son, snú nú þínu andliti í gégn dætrum þíns fólks, sem spá eptir eigin hugbodi, og spá þú móti þeim. 18. Seg: Svo segir Drottinn alvaldur: vei þeim, sem sauma hægindi undir herdar hvørs manns, og búa til høfudsvæfla, bædi smáa og stóra, til þess ad veida sálir manna b)! Egid þér ad veida sálir míns fólks, en frelsa sálir ydvarra líka? 19. Þér vanhelgid mig á medal míns fólks fyrir hnefa byggs og stykki brauds, med því þér spáid þeim feigd, sem ekki eru feigir, og lífi þeim, sem ekki eiga ad lifa, og ljúgid svo ad þeim medal míns fólks, sem fúsir eru ad ljá eyrun lýginni. 20. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur svo: eg skal hafa hendur á ydar svæflum, á hvørjum þér veidid sálir manna, eins og fugla; eg skal slíta þá úr høndum ydar, og sleppa lausum sálum manna, þeim sálum, sem þér veidid, svo þær géti í burtu flogid; 21. eg skal sundurslíta ydar svæfla, og frelsa minn lýd úr ydar høndum; hann

---

V. 11. *a.* Ad reida sig í mótgángi á hégómlegt mannvit, í stadinn fyrir ad treysta ordum Guds, er hid sama sem ad hlada vegg af ónýtu efni, og ætlast til ad hann standist hregg og óvedur. V. 18. *b.* Þ. e. Vei þeim, sem svæfa samvitskur manna, med því ad hræsna eptir hvørs manns gédi. Talshátturinn er dreginn af þeirri sidvenju Austurlendinga, ad liggja á berri jørd upp vid døgg, med kodda undir høfdi og herdum.

skal ekki leingur vera í ydar høndum, sem herfáng, og þér skulud sanna, ad eg em Drottinn. 22. Vegna þess ad þér med ydar lygum hrellid hjarta þess rádvanda, hvørn eg vil ekki hrella láta, en stælid upp hinn ógudlega, svo ad hann ekki snýr af þeim vonda vegi til þess ad frelsa líf sitt: 23. þess vegna skulud þér ekki framar sjá lýgisjónir, og ekki framar fara med spádóma. Eg vil frelsa mitt fólk af ydar høndum, og þér skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn.

## 14. Kapítuli.

Esekíel kénnir, ad Gud vilji þúnglega refsa þeim bræsnurum, sem blótudu á laun, en komu þó fram fyrir Drottinn til ad adspyrja hann 1—11; ad Gud vilji vægja nokkurum af Israelsmønnum, til þess ad opinbert verdi, ad hans dómur hafi verid réttvís, 12—23.

1. Eitt sinn komu nokkurir til mín af forstjórum Israelsmanna, og settu sig nidur frammi fyrir mér. 2. Þá taladi Drottinn til mín þessum ordum: 3. þú mannsins son, þessir menn hafa allan hugann á sínum skurdgodum, og alltaf augun á því fótakéflinu, sem verdur þeim til hrøsunar; skyldi eg þá láta þá adspyrja mig? 4. Þar fyrir tala þú til þeirra, og seg þeim: Svo segir Drottinn alvaldur: hvørr sá af Israelsmønnum, sem hefir allan hugann á sínum skurdgodum, og augun allt af á því fótakéflinu, sem verdur honum til hrøsunar, og gengur ei ad sídur til fréttar vid einhvørn spámannanna, honum skal eg Drottinn eptir því svør géfa, sem hans margfalda afgudadýrkun vinnur til, 5. til þess ad færa Israelsmønnum heim sanninn um þad, ad þeir hafa gjørst mér fráhverfir søkum sinnar margføldu skurdgodadýrkunar. 6. Þú skalt því segja Israelsmønnum: Svo segir Drottinn alvaldur: umvendid ydur, snúid ydur frá ydar skurdgodum, snúid augum ydar frá ydar margvíslegu svívirdíngum! 7. þvíad hvørr sá af Israelsmønnum, eda þeim útlendíngum, er búa í Israel, sem gjørist mér fráhverfur, snýr huga sínum til skurdgoda, og hefir augun á því fótakéflinu sem verdur honum til hrøsunar, en gengur þó til spámannsins, til ad adspyrja mig fyrir hans medalgaungu — honum skal eg Drottinn géfa maklegt svar: 8. Eg skal líta til þess manns med reidisvip, eg skal eydileggja hann, svo hann verdi ødrum til vidvørunar og spotts; eg skal afmá hann af mínu fólki, svo ad þér skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn. 9. Og láti nokkur spámadur hafa sig fyrir dára, og segi þesskonar manni nokkurn spádóm, þá skal eg Drottinn gjøra slíkan spámann ad dára, eg skal útrétta mína hønd móti honum, og afmá hann af mínu fólki Israel; 10. þeir skulu vera jafnsekir hvørr um sig, hinn sem til fréttar gengur, og spámadurinn: 11. til þess ad Israelsmenn ekki framar villist frá mér, og flekki sig ekki framar med allskyns yfirtrodslum, heldur séu mitt fólk, og eg þeirra Gud, segir Drottinn alvaldur.

12. Drottinn taladi til mín þessum ordum: 13. þú mannsins son, ef eitt land syndgadi móti mér med stórkostlegum misgjørdum, og eg útrétti mína hønd móti því, léti þar verda matarskort, sendi því húngur, og eyddi þar mønnum og fénadi, 14. og væri þar þeir þrír menn, Nói, Daníel og Job, þá skyldu þeir søkum rádvendni sinnar frelsa líf sjálfra þeirra, segir Drottinn alvaldur. 15. Ef eg léti skæd dýr fara yfir landid, sem eyddi þad af mønnum, svo þad yrdi ad audn, sem einginn þyrdi um ad fara fyrir dýrunum, 16. þá skyldu þó þessir þrír menn, sem þar væru — svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur — hvørki fá bjargad sonum né dætrum, heldur skyldu þeir ad eins sjálfir afkomast, en landid skyldi verda ad audn. 17. Eda ef eg

léti sverd geysa yfir þad sama land, og segdi: far þú, sverd, yfir landid, eg vil eyda þad ad mønnum og fénadi; 18. og væri þar hinir sømu þrír menn — svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur — þá skyldu þeir hvørki fá frelsad syni né dætur, heldur ad eins sjálfa sig. 19. Eda ef eg léti drepsótt gánga yfir þetta land, og útjysi yfir þad minni reidi med faraldri, svo ad þad eyddist ad mønnum og fénadi, 20. og væru þeir Nói, Daníel og Job þar innan lands, þá skyldu þeir þó — svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur — hvørki fá frelsad syni né dætur, heldur skyldu þeir ad eins fá sjálfum sér bjargad fyrir sakir rádvendni sinnar. 21. Nú þar á móti — svo segir Drottinn alvaldur — jafnvel þó eg sendi mína fjóra refsidóma, sverd, húngur, skjæd dýr og drepsótt, yfir Jerúsalem, til ad eyda þar mønnum og fénadi: 22. þá skulu þó nokkurir verda í borginni, sem af skulu komast og þadan útleiddir verda, bædi synir og dætur; þessir skulu híngad til ydar a) koma, svo ad þér skulud sjá þeirra afdrif og breytni, og huggast vid þá ógjæfu, sem eg lét koma yfir Jerúsalem, og vid allt þad sem eg lét vid hana framkoma; 23. já, þeir skulu hugga ydur, þegar þér sjáid þeirra afdrif og breytni, og hljótid ad vidurkénna, ad eg ekkért hefi gjørt án orsaka af því, sem eg lét fram vid borgina koma, segir Drottinn alvaldur.

## 15. Kapítuli.

Esekíel fyrirmyndar med einn víntré spillíngu og sorgleg afdrif Jerúsalems innbyggjenda.

1. Drottinn taladi til mín þessum ordum: 2. hvad hefir vínvidurinn fram yfir annan vid, þessi teinúngur medal skógardýranna? 3. Verdur nokkud af honum tekinn efnividur til smída? fæst nokkud úr honum nagli, til ad hengja eitthvørt ambod upp á? 4. Nei, hann er hafdur til eldsneytis. Hafi nú eldurinn brent báda enda hans, og sé midjan svidnud, hvørt gagn er þá ad honum til efnividar? 5. Medan hann var enn þá heill, vard ekkért úr honum smídad, því sídur, ad nú verdi nokkud úr honum gjørt, þegar eldurinn hefir brent hann og svidid. 6. Eins og menn nú — svo segir Drottinn alvaldur — fara med vínvidinn jafnt og ønnur skógartré, þau er eg hefi ætlad til eldsneytis, eins skal eg fara med innbúa Jerúsalemsborgar: 7. eg skal líta til þeirra med reidisvip; komist þeir úr einum eldi, skulu þeir í ødrum brenna. Þér skulud þá vidurkénna, ad eg em Drottinn, þegar eg lít til þeirra í reidi minni; 8. eg skal gjøra landid ad audn, sokum þess þeir hafa stórlega misbrotid, segir Drottinn alvaldur.

## 16. Kapítuli.

Esekíel lýsir í einni dæmisøgu velgjorníngum Guds vid Israelsmenn, 1—14; þeirra óþakklæti vid hann aptur á móti, 15—34; Guds réttvísu hegníngu, 35—43; syndastærd þeirra spilltu Gydínga, 44—52; miskunsemi Guds vid þá, ef þeir bættu rád sitt, 53—63.

1. Drottinn taladi til mín þessum ordum: 2. þú mannsins son, leiddu Jerúsalemsborg fyrir sjónir svívirdíngar hennar, 3. og seg: Svo talar Drottinn alvaldur til Jerúsalemsborgar: ad uppruna og ætterni ertu frá Kanaanslandi, fadir þinn var af Amorítum, og módir þín af Hetítum b). 4. Þad er ad segja frá uppruna þínum, ad þann dag sem þú fæddist, var ekki skorid á naflastreng þinn; þú varst ekki laugud í vatni, svo þú yrdir hrein, ekki núin med salti, og ekki reifum vafin. 5. Einginn rendi til þín medaumkvunar auga, til þess ad veita þér nokk-

V. 22. a. Til útlaganna í Kaldealandi. V. 3 b. Þ. e. þú ert líkari því, ad þú sért komin af kanverskum þjódum, Amorítum og Hetítum, sem blótudu skurdgod, en af Abraham hinum trúfasta.

urt eitt af þessu eda kenna í brjósti um þig:
sama daginn og þú fæddist, var þér kastad út
á vídavángi, af því ekki var hirdt um ad láta
þig lifa. 6. Þá gékk eg fram hjá þér, og sá
þig blóduga fyrir mannafótum; eg sagdi til þín,
þar sem þú láxst í þínu blódi: þú skalt lifa! já,
þar sem þú láxst í þínu blódi, sagdi eg til þín:
þú skalt lifa! 7. Eg ásetti mér ad gjøra þig ad
ættmódur svo margra þúsunda, sem grøsin eru
á akri; þú vóxt upp, vardst mikil vexti og hin
fegursta sýnum, brjóstamikil og hárprúd, en ber
og nakin. 8. Eg gékk fram hjá þér, leit þig,
og sá, ad þinn tími var ástarinnar tími; eg trú-
lofadist þér, gjørdi vid þig eidbundinn sáttmála,
segir Drottinn alvaldur, og þú vardst mín. 9.
Eg laugadi þig í vatni, þvodi af þér blódid,
og smurdi þig med vidsmjøri; 10. eg færdi þig
í glitklædi, dró selskinnsskó á fætur þér, faldadi
þér med hvítu líni, og fékk þér silkiskýlu. 11.
Eg prýddi þig á allar lundir, spenti armbaug-
um um handleggi þína, og lét festi á háls þér;
12. eg lét á þig nasanisti, eyrnagull, og veglega
kórónu á høfud þér. 13. Þú varst nú prýdd
gulli og silfri, skrýdd hvítu líni, silki og gliti;
þú átst kökur tilbúnar af smæsta mjøli, hunángi
og vidsmjøri; þú varst frábær ad vænleik, og
vel fallin til konúnglegrar tignar; 14. og nú
fór ord af þér til heidinna þjóda søkum fegurd-
ar þinnar, sem ad øllu var sambodin því skarti
sem eg hafdi á þig látid, segir Drottinn alvaldur.

15. En nú gjørdist þú skeytíngarlaus, søkum
fegurdar þinnar, tókst til ad fremja saurlifnad,
án þess ad gjæta sóma þíns, og sveikst ekki ad
drýgja hórdóm med hvørjum, sem fram hjá
gékk, hvørr sem hann var. 16. Þú tókst nokk-
ud af klædnadi þínum, og gjørdir þér blóthús
med mislitum tjøldum, til ad drýgja hórdóm
í, hvad ed aldrei hafdi fyrr ordid, og aldrei
mun verda. 17. Þú tókst þær gersemar gulls
og silfurs, sem eg hafdi géfid þér til búníngs-
bótar, og gjørdir þér karlmanns líkneskjur þar
af, og drýgdir hórdóm med þeim; 18. þú tókst
þín glitklædi og lagdir yfir þær, og settir fyrir þær
mitt vidsmjør og mitt reykelsi; 19. þau braud
af hveiti, vidsmjøri og hunángi, sem eg hafdi
géfid þér til fædslu, lagdir þú fyrir þær til þægi-
legs fórnarilms; já, svo voru mikil brøgd ad
þessu, segir Drottinn alvaldur; 20. ad þú tókst
syni þína og dætur, sem þú hafdir alid mér, og
blótadir þeim til fædslu fyrir skurdgodin. Var
ekki saurlifnadur þinn nógur, 21. þó þú ekki
þar á ofan slátradir børnum mínum, og gæfir
þau skurdgodum, med því ad brenna þau á
báli þeim til heidurs? 22. Í øllum þínum svi-
virdíngum og saurlifnadi mintist þú ekki þinna
barnæskudaga, þá þú varst ber og nakin, og láxst
blódug fyrir mannafótum. 23. Ofan á allar
slíkar ódádir (vei þér, vei þér, segir Drottinn
alvaldur) 24. bygdir þú þér porthús a) og
hlódst þér hørga á øllum torgum; 25. á øllum
gatnamótum hlódst þú þér hørga, og gjørdir
frídleik þinn vidbjódslegan med því ad glensast
vid hvørn, sem fram hjá gékk, og margfalda
þinn saurlifnad; 26. þú framdir hórdóm med
nábúum þínum, þeim lausláta Egyptalands-
mønnum, og drýgdir margfaldan saurlifnad mér
til módgunar. 27. Þá útrétti eg mína hønd
á móti þér, dró af þér matarskamt þinn, og
seldi þig á vald óvina þinna, dætra Filisteanna,
sem fyrirurdu síg fyrir þitt lastafulla athæfi.
28. Þú drýgdir hórdóm med Assyríumønnum,
án þess ad fá nægju þína; og þegar þú fékkst
ekki nóg af saurlifnadi þínum vid þá, 29. þá
útbreiddir þú þínar hóranir til verdslunar lands-
ins, Kaldealands, og enn nægdi þér ekki. 30.
Af hvílíkum girndarbruna plágadist hjarta þitt

V. 24. *a.* Skjækjuhús þ. e. blóthús, því skurdgodadýrkun kallar Spámadurinn hórdóm, skjækjulifnad og saurlifnad, þar-
ed lausslætis lifnadur var þráfaldt samfara afgudadýrkun.

segir Drottinn alvaldur, þegar þú framdir allt slíkt athæfi, sem hin ósvífnasta skjækja mundi fremja! 31. Þegar þú bygdir þér porthús á øllum gatnamótum, og hlóðst hørga á øllum torgum! þú varst ekki eins og sú skækja, sem er dýr á sér, 32. heldur sem sú hórkona, er tekur ókunnuga menn undir bónda sinn. 33. Øllum skjækjum er vant að gefa kaupgjald; þú þar á móti gafst kaup øllum þínum fylgimønnum, og gintir þá með gjøfum að þér úr øllum áttum, til þess þeir kjæmi og fremdi hórdóm með þér. 34. Þinn saurlifnaður var øðruvísi, en annara kvenna; menn hlupu ekki eptir þér til fylgjulags, heldur gafst þú gjafir en aungvar voru géfnar þér; svo fráleitt var þitt háttalag annara.

35. Þar fyrir heyr þú orð Drottins, þú hóra! 36. Svo segir Drottinn alvaldur: með því að þú jóst út fé þínu, og með þínum saurlifnaði beraðir blygðun þína fyrir þínum fylgimønnum og fyrir þínum andstyggilegu skurðgoðum, og blótaðir þeim blóði barna þinna: 37. þar fyrir þá skal eg samansafna øllum þínum ástmønnum, sem þú hefir haft samlag við, og øllum sem þér eru kjærir, sem og øllum óvinum þínum; þeim skal eg safna saman að þér allt í kríng um þig, og setja þeim fyrir augu þína svívirðíng, svo þeir sjái hana eins og hún er. 38. Eg skal láta refsíngardóm hórkvenna og morðkvenna yfir þig gánga, og ofurselja þig blóðugri hefnd uppvægrar vandlætíngar: 39. eg skal selja þig í hendur þeim, og þeir skulu í eyði leggja þín porthús, niðurbrjóta þína hørga, færa þig af klæðum þínum, taka burtu skartsbúnað þinn, og láta þig sitja eptir bera og nakta; 40. þeir skulu gjøra að þér mannsøfnuð, grýta þig og sundurhøggva þig með sínum sverðum; 41. þeir skulu brenna þín hús í eldi, og framkvæma refsíngardóminn á þér í augsýn margra kvenna. Þannig skal eg til vegar koma, að þú skalt láta af að vera hóra, og ekki framar leggja fé út til þess; 42. þá skal eg láta mína heipt gégn þér enda taka, og mín vandlætíng við þig skal hverfa; eg skal vera kyrr, og ekki framar gremja géð mitt. 43. Af því þú hefir gleymt þínum barnæskudøgum, og sýnt mér þvermóðsku með øllu þessu, þá skal eg líka láta þín verk þér í koll koma, segir Drottinn alvaldur, því þú gétur ekki leingra fram farið þínum svívirðíngum, en þú hefir gjørt.

44. Hvørr sem málsháttu tíðkar, má vel hafa þann málshátt um þig, að mær er jafnan móður lík. 45. Þú ert dóttir móður þinnar, sem rak burt bónda sinn og børn sín; þú ert systir systra þinna, sem burtráku bændur sína og børn; yðar móðir var af Hetítum, og yðar faðir af Amorítum. 46. Stærri systir þín er Samaría með hennar dætrum, hún býr til vinstri handar þér; minni systir þín sem býr til hægri handar þér, er Sódóma með hennar dætrum. 47. Þó hefir þú ekki gengið þeirra gøtu, og ekki framið þeirra svívirðíngar: nei, þér nægði það ekki, heldur hefir þú í øllu þínu háttalagi breytt verr enn þær. 48. Svo framarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur: Sódóma systir þín og hennar dætur hafa ekki gjørt það sem þú og þínar dætur hafa gjørt. 49. Synd Sódómu systur þinnar var ofdramb: hún og hennar dætur høfðu gnótt matar og fullann frið, en réttu þó ekki hinum fátæka og þurfamanninum hjálparhønd. 50. Þær voru drambsfullar, og frømdu svívirðíngar fyrir augum mér; þegar eg sá það, svipta eg þeim í burt. 51. Samaría hefir ekki drýgt helmínginn af þínum syndum; þú hefir framið miklu meiri svívirðíngar, en systur þínar: já, þú hefir sýnt með øllum þeim svívirðíngum, sem þú hefir framið, að þær eru betri, en þú. 52. Ber þú nú þess vegna sjálf þá smán, sem þú hefir sagt að

makleg væri systrum þínum; med þínum syndum, sem eru enn vidurstyggilegri enn þeirra, hefir þú sannad, ad þær eru hátíd hjá þér. Skammastu þín þá, og berdu þína smán, fyrst þú hefir ordid eptirbátur systra þinna!

53. Samt skal eg aptur heimleida þeirra herleidda fólk, bædi þá sem burtfluttir hafa verid frá Sódómu og hennar dætrum, og þá sem herleiddir hafa verid frá Samaríu og hennar dætrum, og ásamt med þeim þá sem frá þér hafa burtfluttir verid; 54. svo þú berir þína smán, og skammist þín fyrir allt þad sem þú hefir gjørt, þegar þú verdur þeim til hugfróar a). 55. Sódóma systir þín og hennar dætur skulu aptur komast í sitt fyrra gengi, Samaría og hennar dætur skulu og aptur komast í sitt fyrra gengi, og þú og þínar dætur skulud eins aptur komast í ykkar fyrra gengi; 56. og þó virdtir þú þig þess ekki, ad nefna Sódómu systur þína á nafn, á þínum ofdrambsdøgum, 57. þegar þín vondska var enn ekki opinber ordin, í þann tíd er hneysan var komin yfir Sýrlands dætur og allar grannkonur þeirra, dætur Filistanna, hvørjar ed nú líta á þig med spotti í krók og kríng. 58. Þú verdur nú ad gjalda þinna lasta og svívirdínga, segir Drottinn. 59. Já, svo segir Drottinn alvaldur: þad væri maklegast, ad eg gjørdi eins og þú hefir gjørt, þú sem gékkst á eidinn og raufst sáttmálid. 60. Ei ad sídur vil eg muna til þess sáttmála, sem eg gjørdi vid þig í æsku þinni, og binda vid þig eilíft sáttmál; 61. muntu þá minnast á athæfi þitt, og blygdast, þegar þú tekur til þín eldri og ýngri systur þínar, hvørjar eg mun gjøra ad dætrum þínum, um þad fram sem þinn sáttmáli stendur til. 62. Eg vil stadfesta mitt sáttmál vid þig, svo þú skalt vidurkénna, ad eg em Drottinn; 63. þú skalt minnast (á þinn fyrra lifnad), og skammast þín, og verda ordlaus af blygdun, þegar eg fyrirgéf þér allt þad sem þú hefir gjørt, segir Drottinn alvaldur.

## 17. Kapítuli.

Esekíel sýnir, med dæmisøgu um eitt víntré, ad sættarof Sedekíass Júda Konúngs mundi verda honum til ógjæfu, 1—21; Gud géfur fyrirheit um mikinn og dýrdlegann Konúng, sem á sínum tíma skyldi uppríssa af Davíds ætt, 22—24.

1. Drottinn taladi til mín svo látandi ordum: 2. þú mannsins son, ber upp gátu, og seg Ísraelsmønnum eina eptirlíkíng, 3. og seg: Svo segir Drottinn alvaldur: ørnin sú hin mikla med þá stóru vængina og laungu flugfjadrirnar, sú sem á þykkva og allavega lita fidurhaminn, fór eittsinn upp á Líbanonsfjall til ad ná sér laufgrein af Sedrustrénu. 4. Hún braut af vænsta kvistinn, flutti hann til verdslunarlandsins, og setti hann í borg kaupmannanna. 5. Sídan valdi hún einn gródurkvist landsins, til þess ad setja hann í sádland: hún tók hann, og gródursetti hann á sléttlendi nokkuru, þar sem mørg vøtn voru. 6. Kvisturinn óx, og vard af honum greinóttur vínvidur, en þó lágvaxinn, til þess hann skyldi beygja ánga sína ad ørninni, svo ræturnar héldist undir honum; en þó vard úr honum vínvidartré, sem fékk kvistu og skaut laufhríslum. 7. En þar var ønnur mikil ørn, med stórum vængjum og miklu fidri; og sjá, þetta sama vínvidartré teygdi rætur sínar ad henni, og rétti út ángana til hennar, til þess hún skyldi vøkva þad betur, en þær uppsprettur gátu gjørt, sem voru þar sem þad var gródursett; 8. og þó var þad gródursett í gódri jørd, þar sem nóg vatn var, svo þad hefdi vel mátt fá kvistu, og bera ávøxt, og verda ad margkvíslóttu vínvidartré. 9. Seg: Svo segir Drottinn alvald-

V. 54. *a.* Med þvi ad þú hefir ordid fyrir sømu hegníngu og þær.

ur: hvørt mun þessi vínvidur ná ad dafna? mun hin ørnin ekki slíta upp rætur hans og afsníða ávøxtinn, svo vidurinn þorni upp, og øll blød á aungum hans visni? hún mun ei þurfa mikilla krapta ad neyta eda mannafla vid ad hafa, til þess ad slíta hann upp med rótum. 10. Hann er ad sønnu gródursettur, en mun hann ná ad dafna? mun hann ekki skrælna, þegar austræníngurinn fer ad leika um hann? mun hann ekki upp þorna hjá þeim uppsprettum, hvar hann vóx? 11. Því næst mælti Drottinn þannig til mín: 12. Seg til hinnar þvermódskufullu kynslódar: skiljid þér ei, hvad þetta á ad þýda? Sjá, skaltu segja, Babels Konúngur a) kom til Jerúsalemsborgar, handtók hennar Konúng b) og høfdíngjana, og flutti þá heim til sín til Babels. 13. Hann tók nú einn af Konúngsættinni c), gjørdi sáttmála vid hann og tók eid af honum, en flutti á burt valdamenn landsins, 14. til þess ad nidurlægja ríkid, svo ad þad skyldi ekki gjøra uppreisn, heldur halda sáttmálann ad stadaldri. 15. En hann c) hóf uppreisn gégn honum, og gjørdi sendimenn til Egyptalands eptir hestalidi og mannafla. Mundi honum heppnast þetta? mun sá, er slíkt gjørir, undan sleppa? mun sá, sem rýfur sáttmála, klaklaust afkomast? 16. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur, skal hann deya i borg þess Konúngs, sem hóf hann til ríkis, hvørs sáttmála hann hefir rofid, og ad eingu haft þann eid, er hann vann honum — í Babel skal hann deya. 17. Ekki skal Faraó med miklum styrk og lidsfjølda mega verda honum ad lidi í ófridinum, þegar þeim jardhryggnum verdur upp hleypt, og hladinn sá víggardurinn, sem mørgum manni mun ad bana verda. 18. Hann hefir eidinn ad eingu haft og rofid sáttmálann, já, hann seldi til þess hønd sína, og gjørdi þó allt þetta; hann skal ekki óhegndur sleppa. 19. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur: svo sannarlega sem eg lifi, skal eg láta þad koma yfir hans høfud; því — þad er minn eidur, sem hann hefir ad eingu haft, og minn sáttmáli, sem hann hefir rofid. 20. Eg skal leggja net mitt fyrir hann, og hann skal veiddur verda í mínu veidarfæri; eg skal flytja hann til Babels, og gánga þar í lagadóm vid hann um þá óhollustu, sem hann hefir sýnt mér; 21. allir hans flóttamenn og gjørvallur hans her skal fyrir sverdi falla, en þeir sem eptir uppi standa, skulu tvístrast í allar áttir, svo ad þér skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn.

22. Svo segir Drottinn alvaldur: eg vil sjálfur taka eina laufgrein af því hávaxna sedrustré, og setja hana; eg vil brjóta grannan kvist af topplimum þess, og gródursetja hann á háfum fjallshrygg: 23. eg vil gródursetja hann á Israels háfa fjalli, og hann skal fá limar og bera ávøxt, og verda veglegur sedrusvidur; undir honum skulu allskonar fuglar búa, allskonar vængjud dýr skulu búa undir skugganum hans greina. 24. Og øll trén í skóginum skulu finna, ad eg Drottinn nidurlægi þad háfa tré og upphef þad lága, læt þad græna tré þorna, og hid þurra grænka, Eg Drottinn tala og framkvæmi.

## 18. Kapítuli.

*Esekíel rekur þá meiníngu Gydínga, ad þeir yrdu saklausir ad gjalda synda forfedra sinna: Því Gud hegnir ei nema þeim seka, og er miskunsamur vid þann ógudlega, ef hann lætur af illu. Sbr 33, 10—20.*

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ordum: 2. hvad á sá málsháttur ad þýda, sem þér hafid um Israelsland, er þér segid: fedurnir eta súru vínberin, en børnin fá tannverkinn? (Jer. 31, 29—30). 3. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur, þá skulud þér

V. 12. *a.* Nebukadnesar. *b.* Jekonias. V. 13 og 15. *c.* Sedekias.

ekki framar hafa slíkt orðtak í Ísrael. 4.
Sjáið! allir menn eru mínir, sonurinn allteins
og faðirinn. Hvørr sá maður, sem syndgar,
hann skal deya. 5. Hvørr sá maður, sem er
ráðvandur, og breytir rétt og ráðvandlega: 6.
Hvørr sem ekki etur af skurðgoðafórnum á fjøll=
um uppi, upphefur ekki sín augu til skurðgoða
Ísraelsmanna, flekkar ekki eiginkonu náúnga
síns, og nálægir sig ekki konu, sem er óhrein;
7. hvørr sem aungvan undirokar, skilar aptur
skuldaveði, tekur ekki neitt frá øðrum, býtir
brauði þeim húngraða, og skýlir klæðum hinn
nakta, 8. tekur ekki leigu af lánsfé, gjørir ekki
okrøsu (3 Mós. 25, 36), heldur sér frá því
sem rángt er, dæmir rétt á milli manna; 9.
hvørr sem gégnir mínum skipunum og heldur
mín boð alvarlega, hann er ráðvandur mað=
ur, hann skal lifa, segir Drottinn alvaldur.
10. En egi hann ofbeldismann fyrir son, sem
úteys blóði, eða gjørir eitthvað af því, sem
hér er bannað, 11. eða gjætir ekki alls þess, sem
hér er boðið, heldur etur á fjøllum uppi,
flekkar kvinnu náúnga síns, 12. kúgar hinn
fátæka og þurftuga, tekur frá øðrum, skilar ekki
aptur veði, upphefur augu sín til afguða,
fremur svívirðíngar, 13. tekur leigu af láns=
fé, gjørir okrøsu: skyldi hann lifa? nei, sá
skal ekki lifa, sem fremur slíkar svívirðingar,
deya skal hann, hans blóðsekt skal hvíla yfir
honum. 14. Sá sonur þar á móti, sem sjer
allar þær syndir, sem faðir hans drýgði, en
breytir þó ekki eins og hann sjer fyrir sér
haft: 15. etur ekki á fjøllum uppi, upphefur
ekki sín augu til skurðgoða Ísraels manna,
flekkar ekki eginkonu náúnga síns, 16. kúgar
aungvann, heldur ekki inni veði, tekur ekkért frá
øðrum, býtir brauði þeim húngraða, skýlir
klæðum þann nakta, 17. leggst ekki á aum=
íngjann, tekur ekki leigu, né gjørir okrøsu,
heldur mín boðorð og lifir eptir mínum skipun=
um — sá skal ekki deya sakir misgjørða føð=
ur síns; nei, hann skal lifa. 18. En faðir
hans, sem framdi ofríki og rán gégn bróður
sínum, og gjørði hvað ei var gott meðal síns
fólks, hann dó fyrir sínna misgjørða sakir.
19. Hví skal sonurinn ekki gjalda misgjørða
føðursíns? spyrjið þér. Sonurinn skal lifa,
af því hann breytti rétt og ráðvandlega, gjætti
allra minna boðorða og héldt þau. 20. Hvørr
sá maður, sem syndgar, hann skal deya. Son=
urinn skal ekki gjalda føðursíns, og faðirinn
ekki sonarins; ráðvendnin skal aungvum til=
reiknast, nema þeim ráðvanda, og ógudleikinn
aungvum nema þeim óguðlega. 21. En hverfi
hinn óguðlegi frá øllum sínum syndum, sem
hann hefir gjørt, og haldi øll mín boðorð, og
breyti rétt og ráðvandlega, þá skal hann lifa
og ekki deya. 22. Øll hans afbrot, sem hann
hefir drýgt, skulu honum þá ei tilreiknuð verða;
fyrir sakir þeirrar ráðvendni, sem hann framdi,
skal hann lifa. 23. Hugsar þú, að eg hafi
þóknun á dauða hins óguðlega, segir Drottinn
alvaldur; nei, heldur þar á, að hann bæti ráð
sitt, og lifi. 24. En víki sá ráðvandi frá
sínni ráðvendni og gjøri órétt, og breyti eptir
øllum þeim svívirðíngum, sem hinn óguðlegi
drýgir, skyldi hann þá lifa? Nei, øll sú ráð=
vendni, sem hann hefir framið, skal ei til álita
koma; fyrir þá óhollustu, sem hann hefir sýnt, og
þá synd, sem hann hefir drýgt, skal hann deya. 25.
Og þó segið þér: vegur hins alvalda er ekki rétt=
ur? Heyrið þá, þér Ísraels menn! Skyldi minn
vegur ekki vera réttur? munu yðar vegir ekki
vera rángir? 26. Þegar sá ráðvandi víkur
frá sínni ráðvendni og gjørir rángt og deyr
fyrir þá skuld, þá deyr hann fyrir sakir þeirra
ránginda, sem hann gjørði; 27. og þegar sá
óguðlegi hverfur frá sínu ránglæti, sem hann
gjørði, og drýgir dygð og dáð, þá frelsar hann líf
sitt; 28. af því hann sjer að sér, og lætur af øll=

um þeim illgjørdum, sem hann hefir framid, fyrir þá skuld skal hann lifa og ekki deya. 29. Og þó segja Ísraelsmenn: vegur hins alvalda er ekki réttur! Mínir vegir, skyldu þeir ekki réttir vera? Munu ekki ydar vegir, Ísraelsmanna, vera rángir? 30. Eg vil þá dæma sérhvørn ydar Ísraelsmanna eptir sínni hegdun, segir Drottinn alvaldur. Snúid ydur því einlæglega frá øllu ydar syndsamlegu athæfi, svo ydar misgjørdir verdi ydur eigi til tjóns; 31. varpid frá ydur øllum ydar syndum, sem þér drýgt hafid, og efnid ydur uppá nýtt hjartalag og nýtt hugarfar! því hvar fyrir viljid þér deya, Ísraelsmenn? eg hefi aungva vild á því, ad nokkur madur deyi; bætid því rád ydvart, og lifid!

## 19. Kapítuli.

Harmasaungur yfir óførum nokkurra af þeim sídustu Konúngum Júdaríkis, 1—9; og yfir þjódarinnar hryggilegu afdrifum, 10—14.

1. Kyrja þú upp harmasaung yfir Ísraels høfdíngjum a), 2. og seg: enn hvad ljónsmædran, módir þín b) lá makrád á medal ljónanna, og uppól hvolpa sína midt á milli ljónskálfanna! 3. Hún ól upp einn c) af hvolpum sínum, uns hann vard ad ljónskálfi; hann vandist vid ad leita sér ætis, og lifdi á mannabrád. 4. Og er þjódirnar fengu fregn af honum, veiddu þær hann í sínum grøfum, settu hrínga í nasir hans, og fluttu hann til Egyptalands. 5. En er ljónsmædran sá, ad henni brást sú ætlan, er hún hafdi gjørt sér, tók hún annan d) af hvolpum sínum, og gjørdi úr honum ljónskálf. 6. Sá ljónskálfur gékk nú medal ljónanna, vandist vid ad leita sér ætis, og lifdi á mannabrád, 7. lagdist á Konúngahallir og eyddi borgir, en allir, sem í landinu bjuggu, urdu hræddir vid øskur hans. 8. Þá slógu þjódirnar frá nálægum løndum hríng um hann, løgdu net fyrir hann, og vard hann veiddur í grøfum þeirra; 9. þeir létu hrínga í nasir hans, og fluttu hann svo í búri til Babels Konúngs, og var honum þar varpad í ljónagryfju, svo ad óp hans skyldi ekki framar heyrast á Ísraels fjøllum.

10. Módir þín var lík þér, hún var eins og þad víntré, sem gródursett var hjá vatni, og vard ávaxtarsamt og greinótt af vatnsgnóttinni; 11. hríslur þess voru sterkar og mátulegar í veldissprota, og uxu hátt upp í milli annara kvista, svo ad mjøg bar á vexti þeirra medal hinna mørgu ánga. 12. En því vard upp rykt í heipt og kastad á jørd nidur; vindur af austri e) uppþurkadi ávøxtinn, þær sterku hríslurnar brotnudu og visnudu; eldur f) eyddi þeim. 13. Nú er þad gródursett í eydimørku, í þurru og vatnslausu landi; 14. en eldur g) hefir brotist út af legg hríslanna og eydt ávexti trésins, og nú er eingin sterk hrísla eptir á því, sem hæf sé í veldissprota. Þetta er harmasaungur, og skal verda harmasaungur.

## 20. Kapítuli.

Esekíel talar skorinordt móti afgudadýrkun Gydínga og hræsni þeirra.

1. Á sjøunda árinu, þann tíunda dag hins fimta mánadar, komu nokkurir af høfdíngjum Ísraelsmanna til ad adspyrja Drottinn, og settu sig nidur frammi fyrir mér. 2. Þá taladi Drottinn til mín svo látandi ordum: 3. þú mannsins son, tala þú til forstjóra Ísraelsmanna, og seg til þeirra: Svo segir Drottinn alvaldur: erud þér komnir til ad adspyrja

V. 1. *a.* Þeim vondu eptirkomendur Jósíass Júda Konungs, 2 Kóng. 23, 31—24, 16, 2 Kron. 36, 1—10. V. 2. *b.* Innbúar Júdaríkis, forfedur ydar. V. 3. *c.* Jóakas, son Jósíass Kóngs. V. 5. *d.* Jóakin. V. 12. *e.* Konúngur Kaldeanna. *f.* Reidi Drottins. V. 14. *g.* Uppreisn Sedekíasar Kóngs.

mig? Svo ſannarlega ſem eg lifi, vil eg ei láta ydur adſpyrja mig, ſegir Drottinn alvaldur. 4. Vanda þú um vid þá, þú mannsins ſon, ávíta þú þá; leid þeim fyrir ſjónir ſvívirdíngar forfedra ſinna, 5. og ſeg þeim: Svo ſegir Drottinn alvaldur: þann dag er eg útvaldi Israelsfólk, eidbatt ſáttmála vid afkomendur Jakobs ſona, gjørdi mig þeim augljóſan í Egyptalandi, og ſór þeim med upplyptri hendi „eg em Drottinn, ydar Gud"; 6. þann ſama dag er eg ſór þeim med upplyptri hendi, ad eg ſkyldi leida þá út af Egyptalandi til þeſs landſins, ſem eg hefdi fyrirhugad þeim, ſem flyti af mjólk og hunángi, og væri ágjætaſt eitthvørt allra landa: 7. þá ſagda eg til þeirra: ſérhvørr ydar burtkaſti þeim vidurſtygdum, ſem verid hafa ydar augnagaman, og ſaurgid ydur ekki á ſkurdgodum Egyptalandsmauna; eg Drottinn er ydar Gud. 8. En þeir voru mér mótſnúnir, og vildu eigi hlýda mér; einginn þeirra burtkaſtadi þeim vidurſtygdum, ſem voru þeirra augnagaman, og þeir yfirgáfu ekki afgudi Egyptalandsmanna. Þá hét eg ad útauſa yfir þá minni heipt, og láta mína gjørvalla reidi yfir þá koma midt í Egyptalandi. 9. Þó gjørda eg þad fyrir míns nafns ſakir, ſvo þad ſkyldi ei vanhelgad verda medal þeirra heidíngja, hjá hvørjum þeir voru, og í hvørra augſýn eg hafdi gjørt mig þeim augljóſan, ad eg leiddi þá út af Egyptalandi. 10. Eg leiddi þá þeſs vegna út af Egyptalandi, og kom þeim inn í eydimørkina. 11. Þá gaf eg þeim mín bodord, og kunngjørdi þeim mitt løgmál, ſem hvørr madur, er heldur, ſkal heill af hljóta. 12. Eg gaf þeim og mína hvíldardaga til merkis um þad ſamband, ſem var milli mín og þeirra, ſvo þar af mætti augljóſt verda, ad eg Drottinn er ſá, ſem þá heilaga gjørir 13. En Iſraelsmenn voru mér mótſnúnir í eydimørkinni, þeir lifdu ei eptir mínum bodordum, heldur fyrirlitu mitt løgmál, ſem hvørr madur, er heldur, ſkal heill af hljóta; og mína hvíldardaga vanhelgudu þeir næſta mjøg. Eg hét þá ad útauſa minni reidi yfir þá í eydimørkinni, og gjøreyda þeim; 14. en eg gjørdi þad þó ekki, fyrir míns nafns ſakir, ſvo þad ſkyldi ei vanhelgad verda medal heidíngjanna, í hvørra augſýn eg hafdi útleidt þá. 15. Og jafnvel þó eg hefdi ſvarid med uppréttri hendi í eydimørkinni, ad eg ekki ſkyldi leida þá inn í þad landid, ſem eg hafdi ætlad þeim, þad land, ſem flyti af mjólk og hunángi, og ágjætaſt væri allra landa, 16. vegna þeſs þeir høfdu fyrirlitid mitt løgmál, ekki lifad eptir mínum bodordum, vanhelgad mína hvíldardaga og hneigt hugi ſína til afgudadýrkunar: 17. þá ſamt vægda eg þeim, ſvo eg tortýndi þeim ekki né gjøreyddi í eydimørkinni. 18. Eg ſagdi þá vid ſonu þeirra í eydimørkinni: breytid ekki eptir ſidum fedra ydvarra, haldid ekki þeirra háttalagi, og ſaurgid ydur ekki á þeirra ſkurdgodum; 19. eg Drottinn er ydar Gud: lifid eptir mínum bodordum, haldid mitt løgmál og breytid eptir því, 20. haldid heilagt mína hvíldardaga til merkis um þad ſamband, ſem er í milli mín og ydar, hvar af þekkjaſt ſkal, ad eg Drottinn er ydar Gud. 21. En ſynirnir voru mér mótſnúnir, þeir lifdu ei eptir mínum bodordum, ſkeyttu ei um ad hegda ſér eptir mínu løgmáli, ſem hvørr madur, er heldur þad, ſkal þó heill af hljóta; og þeir vanhelgudu mína hvíldardaga. 22. Samt hepti eg hønd mína, og mat þad meir, ad mitt nafn ſkyldi ei verda vanhelgad medal heidíngjanna, í hvørra augſýn eg hafdi útleidt þá. 23. Eg ſór þeim nú med uppréttri hendi í eydimørkinni, ad eg ſkyldi tvíſtra þeim medal heidíngjanna og dreifa þeim út um løndin, 24. af því þeir høfdu ekki breytt eptir mínu løgmáli, heldur fyrirlitid mín bod-

ord, vanhelgad mína hvíldardaga, og sett hug
sinn til afguda fedra sinna. 25. Nú lét eg
þá taka upp þá sidi, sem ekki voru gódir, og
þad hattalag, sem þeim vard til ógjæfu: 26.
eg lét þá saurga sig á fórnum sínum, þar sem
þeir brendu á báli alla frumburdi sína, til þess
þeim skyldi ofbjóda a), svo þeir yrdi ad kann-
ast vid, ad eg em Drottinn. 27. Tala þú
þessvegna til Ísraelsmanna, þú mannsins son,
og seg þeim: Svo segir Drottinn alvaldur:
hér á ofan hafa forfedur ydar smánad mig,
og sýnt mér óhollustu í því, sem nú mun eg
telja: 28. eg leiddi þá inn í þad landid, sem
eg med uppréttri hendi hafdi heitid ad géfa
þeim; en ekki høfdu þeir fyrr komid auga á
einhvørja háfa hæd eda einhvørn lundinn, fyrr
en þeir blótudu þar blótum sínum, báru þar
fórnir, sem mér voru andstyggilegar, létu þar
sinn sætan ilm uppstíga, og dreyptu þar dreypi-
fórnum sínum. 29. Eg sagdi til þeirra: hvad
eru þessar hædir b), er þér gángid til? og þó
heyrist ávalt nafnid „hæd" allt til þessa dags.
30. Þar fyrir seg þú til Ísraelsmanna:
Svo segir Drottinn alvaldur: þér erud saurg-
adir allt eins og forfedur ydar, og fremjid eins
andstyggilegan saurlifnad, og þeir gjørdu; 31.
þér hafid saurgad ydur á øllum ydar skurd-
godum allt til þessa dags, med því ad færa
þeim fórnir og brenna børn ydar á báli. Skyldi
eg láta ydur, Ísraelsmenn, adspyrja mig? nei,
svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvald-
ur, vil eg ekki vera adspurdur af ydur. 32.
Ekki skal þad heldur verda, sem ydur hefir til
hugar komid; þér hugsudud: vér viljum vera
sem adrar þjódir, hafa á oss sidi annara landa,
og tilbidja stokka og steina. 33. Svo sann-
arlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur, skal
eg drottna yfir ydur med øflugri hendi, med
útréttum armlegg og med útheltri heipt: 34. eg
skal útleida ydur frá þjódunum; med øflugri
hendi, útréttum armlegg og í útheltri heipt
skal eg samansafna ydur af þeim løndunum, sem
þér erud í dreifdir, 35. og færa ydur út í
eydimørku þjódanna, til þess ad halda þar
dóm yfir ydur augliti til auglitis. 36. Eins
og eg dæmdi forfedur ydar í Egyptalands
eydimørku, eins vil eg ydur dæma, segir Drott-
inn alvaldur. 37. Eg skal færa ydur undir
hirtíngarvøndinn, og þreyngja ydur í bønd sátt-
málans; 38. en þá mótsnúnu og fráføllnu vil
eg skilja frá ydur; eg vil leida þá út af því
landi, hvar þeir búa í útlegd, en í Ísraels-
land skulu þeir ekki koma, svo ad þér skulud
vidurkénna, ad eg em Drottinn. 39. Þér,
Ísraelsmenn! Svo segir Drottinn alvaldur:
fari nú hvørr ydar, sem vill, og þjóni sínum
afgudum eptirleidis, fyrst einginn ydar vill
hlýda mér, og vanhelgid ekki hér eptir mitt hei-
laga nafn med ydar fórnum og svívirdilegu blót-
um! 40. Því á mínu heilaga fjalli, á Ísraels
háfa fjalli (segir Drottinn alvaldur) skulu allir
Ísraraelsmenn, allir innbúar landsins, tilbidja
mig; þar skal eg hafa þóknun á þeim, þar skal eg
þekkjast ydar upplyptíngarfórnir og ydar frum-
gróda, ásamt med øllu því sem þér helgid mér;
41. þér skulud vera mér velkomnir med ydar
sæta fórnarilm, þegar eg hefi útleidt ydur frá
þjódunum, og samansafnad ydur úr þeim lønd-
unum, sem þér erud í dreifdir, og þá skal eg
helgadur verda c) medal ydar í augsýn heid-
íngjanna. 42. Þér skulud vidurkénna ad eg
em Drottinn, þegar eg hefi innleidt ydur í Ís-
raelsland, í þad landid, sem eg med svardaga
hét ad géfa fedrum ydar. 43. Þar skulud

V. 26. *a.* Til þess þeir ræki sig á sjálfir, og fyndi, hvørr munur var á þeirri sønnu Guds dýrkun og afgudadýrkaninni. V. 29. *b.* Í hvørju eru blótshædirnar betri, en musteri Drottins? V. 41. *c.* Þ. e. vegsamadur og tilbedinn, sem sá eini sanni Gud.

þér minnast ydar fyrri breytni, og allra ydar
verka, med hvørjum þér saurgudud ydur, og
ydur skal bjóda vid sjálfum ydur sökum alls
þess illa, sem þér hafid gjört. 44. Og þér,
Israelsmenn, skulud vidurkénna, ad eg em Drott-
inn, þegar eg breyti vid ydur fyrir míns nafns
sakir a), en ekki eptir ydar vondri breytni og
illverkum, segir Drottinn alvaldur.

## 21. Kapítuli.

*Esekíel fyrirmyndar eydileggíngu Jerúsalemsborgar, 1—5; lýsir þessari hormúng berara med sorgarlátum, 6—22; herför Nebúkadnesars móti Jerúsalem, 23—29; spáir, ad Sedekías Kóngi muni steypt verda frá völdum, 29—32; ad Babels Kóngur mundi og eydileggja Ammoníta, 33—37.*

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ord-
um: 2. Þú mannsins son, horfdu í sudurátt,
og lát ord þín streyma á móti sudri og spá
fyrir skóginum, sem er á sudurlandinu, 3. og
seg til skógarins í sudrinu: heyr ord Drott-
ins! Svo segir Drottinn alvaldur: sjá, eg
kveyki eld í þér, sem eyda skal hvørju grænu
tré og þurrum vidi, sem í þér er; sá megni
eldslogi skal ekki slokna, heldur skal fyrir hon-
um allur jardvegur brenna frá sudri til nord-
urs. 4. Allir menn skulu sjá, ad eg Drott-
inn hefi uppkveykt hann, og hann skal eigi slökt-
ur verda. 5. Þá sagdi eg: æ, Drottinn al-
valdi, þeir munu segja um mig: hann talar
ekki nema í rádgátum.

6. Þá taladi Drottinn til mín svolátandi
ordum: 7. Þú mannsins son: snú þér í móti
Jerúsalemsborg, lát ord þín streyma gégn helgi-
dóms stadnum b), og spá fyrir Israelslandi,
8. og seg til Israelslands: Svo segir Drott-
inn: sjá eg fer á móti þér, eg vil draga mitt
sverd úr slídrum, og afmá hinn rádvanda, sem
í þér býr, ásamt med þeim ógudlega; 9. og
med því eg vil afmá hinn rádvanda, sem í þér
býr, ásamt med þeim ógudlega, þá skal sverd
mitt hlaupa úr slídrunum á alla lifandi menn
frá sudri til nordurs; 10. og allir menn skulu
sanna, ad eg Drottinn hefi dregid mitt sverd úr
slídrum, og þad skal ekki þángad aptur hverfa.
11. En þú, mannsins son, styn þúngan, svo ad
mjadmir þínar engist saman, styn beisklega í
augsýn þeirra; 12. og þegar þeir spyrja þig:
af hvørju stynur þú? þá svara: af frétt nokk-
urri, hún c) mun koma, svo ad öll hjörtu munu
blotna, allar hendur fallast, allur dugur dofna
og öll kné ida sem vatn; sjá, hún kémur, hún
sannast, segir Drottinn alvaldur. 13. Enn
fremur sagdi Drottinn til mín: 14. Þú manns-
ins son, spá og seg: Svo segir hinn Alvaldi:
seg, sverdid, sverdid! þad er brýnt, þad er fægt;
15. þad er brýnt til þess ad bíta, og fægt til
þess ad blika. O, veldissproti, þú sproti míns
sonar! sverdid vægir aungvu tré; 16. því hefir
verid komid í burtu til fægíngar, svo þad verdi
nú þegar knefad; sverdid er brýnt og fægt, svo
þad verdi selt vegandanum í hendur. 17.
Hljóda þú og æp, mannsins son! þad er ætlad
til höfuds mínu fólki og öllum Israels höfd-
íngjum; þeir ásamt med mínu fólki eru undir
sverdid seldir; þar fyrir skaltu berja þér á brjóst.
18. Bit sverdsins er reynt! Hvad? mundi þad
einnig vinna á veldissprotann? segir Drottinn
alvaldur. 19. Spá þú, mannsins son! klappa
þú lof í lófa, tvíbregd þú sverdinu í þridja sinni!
fyrir því skal múgurinn, fyrir því skulu höfd-
íngjarnir falla; þad skal heimsækja þá í her-
bergjum þeirra. 20. Til þess ad allur hugur
dodni og mannfallid verdi sem mest, hefi eg sett
þad ógurlega sverd vid öll borgarhlid þeirra.
Hæ, þad er gjört til þess ad blika og brýnt til
þess ad brytja! 21. Vertu til taks (þú sverd)!
veg þú til hægri handar! snú þér vid! veg til
hinnar vinstri, og hvørt sem eggjar horfa! 22.

V. 44. *a.* Þ. e. eptir minni miskunsemi og trúfesti. V. 7. *b.* Musterinu. V. 12. *c.* Hersagan.

Nú skal eg einnig klappa lof í lófa, og svala heipt minni; eg Drottinn hefi talad þad.

23. Enn fremur taladi Drottinn til mín svolátandi ordum: 24. þú mannsins son, gjør þér tvo vegu, er sverd Babels konúngs géti farid, og skulu bádir liggja frá sama landi; marka svo einn stad, og skaltu marka hann á vegamótum, þar sem vegir skilja til borgarinnar; 25. gjør þér einn veg, sem sverdid géti farid til Rabba í landi Ammoníta, en annan til Júdalands, hvar sú trausta borg Jerúsalem er. 26. Á þessum vegamótum, þar sem bádar leidir skilja, nemur Babels konúngur stadar, til þess ad láta spá fyrir sér: hann hristir ørvarnar, adspyr húsgodin, skodar lifrina. 27. Í sinni hægri hendi heldur hann á spáørinni, sem vísar honum til Jerúsalemsborgar, til þess ad reisa þar víghrúta til ad brjóta med hlid á borgina, hrinda upp herópi, færa víghrútana ad borgarhlidunum, hleypa upp jardhryggjum og hlada víggarda. 28. Þeim mun sýnast spáin lýgileg, en menn munu eidfesta hana; mun hann þá reka minni til sáttmálaroffsins, og ætla sér tækt ad vinna borgina. 29. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur: med því ad þér látid adra reka minni til ótrygdar ydvarrar — því svo eru ydar misgjørdir berar, svo augsýnilegar ydar syndir í øllu ydar athæfi, — fyrst ad þér hafid slíkt ord á ydur, þá skulu þér í hershendur falla.

30. Þú dygdarlausi og ógudlegi Ísraels høfdíngi a)! sá dagur er fyrir hendi, þá misgjørd þín skal þér ad tjóni verda. 31. Svo segir Drottinn alvaldur: legg af þér høfudmoturinn, tak ofan kórónuna. Svo skal ekki lengur til gánga; eg upphef þad lága, og nidurlægi þad háfa; 32. og læt eina eydileggínguna koma á fætur annari; þad sem nú er, skal ekki framar vera, þángad til sá kémur, hvørjum dómvaldid tilheyrir, honum vil eg þad géfa.

33. Spá þú, mannsins son, og seg: Svo segir Drottinn alvaldur um Ammoníta og hádsyrdi þeirra: sverdid, skaltu segja, sverdid er dregid úr slídrum til ad slá í hel, þad er nógu fagurt til ad blika: 34. svo ad, ámedan þú lætur ginna þig med hégómasýnum og lýgispádómum, skaltu verda lagdur í valinn hjá þeim helslegnu illgjørdamønnum, hvørra hegníngardagur adkom, þá misgjørdir þeirra skyldu þeim ad tjóni verda. 35. Ad sønnu mun eg láta sverdid aptur slidra, en þig skal eg dæma á þeim stad, sem þú ert fæddur, og í því landi, sem þú ert upprunninn. 36. Eg skal útausa minni reidi yfir þig, og blása á þig mínum heiptarloga, og selja þig í hendur skadrædismanna, sem leiknir eru í ad eydileggja. 37. Þú skalt verda eldsmatur, þínu blódi skal í þínu eigin landi úthelt verda, og minníng þín skal verda afmád; því eg Drottinn hefi sagt þad.

## 22. Kapítuli.

Esekíel lýsir sidaspillíngu Jerúsalems borgarmanna, 1 — 16; gjørvallrar þjódarinnar, 17 — 22; allra stétta, spámanna, kénnimanna, yfirvalda og almúga, 23 — 31.

1. Drottinn taladi til mín svo látandi ordum: 2. þú mannsins son, ávíta þú, vanda þú um vid þá blódseku borg, og leid henni fyrir sjónir allar hennar svívirdíngar, 3. og seg: Svo segir Drottinn alvaldur: þú borg, sem úteys blódi innan þinna borgarveggja, til þess ad leida yfir þig hegnínguna, og gjørir þér afgudi, til þess ad saurgast á! 4. Þú ert sek ordin þess blóds, sem þú úthellir; þú ert ordin saurgud af þeim skurdgodum, sem þú býr til handa þér; þú hefir flýtt fyrir óláni þínu, og ert komin af fótum fram b). Þess vegna skal eg gjøra þig ad hádúng medal heidíngjanna, og ad athlægi allra landa; 5. nær og fjær skalt þú hædd verda, þú illa

V. 30. *a.* Sedekias. V. 4. *b.* Þú ert komin á grafar bakkann, fram á þad fremsta glotunar stig.

ræmda og styrjaldarsama borg! 6. Sjá! høfdíngjar Ísraelsmanna, sem í þér búa, úthella blódi, hvørr sem betur gétur. 7. Hjá þér eru fadir og módir fyrirlitin, útlendíngum ofríki gjørt, ekkjur og fødurleysíngjar undirokadir: 8. þú fyrirlítur mína helgidóma, og vanhelgar mína hvíldardaga. 9. Hjá þér eru bakmælgismenn, sem koma manndrápum til leidar; hjá þér eru blótfórnir etnar á fjøllum uppi, og allskonar illlifnadur í frammi hafdur: 10. fadirinn er smánadur hjá þér, og komid nærri konu, þá hún er óhrein: 11. illlifnadur er framinn med konu náúngans, sonarkonan ófrægd med smán, og samfedra systkin leggjast hvørt med ødru: 12. menn taka fé til høfuds ødrum, þú gjørir okur og ofkrøfu, þú ásælist og féflettir náúnga þinn; en mér hefir þú gleymt, segir Drottinn alvaldur. 13. Eg gét ekki annad en fórnad høndum yfir því rángfengna fé, sem þú hefir dregid þér, og yfir því blódi, sem úthelt er í þér. 14. Mun nokkud kjarkur þinn standast eda þróttur þinn haldast, þegar þeir dagarnir koma, sem eg mun láta yfir þig lída? Eg Drottinn tala og framkvæmi. 15. Eg skal tvístra þér medal þjódanna, og dreifa þér út um løndin, og afmá allt sem óhreint er í þér; 16. þú skalt verda álitin af heidingjunum sem vanhelgud, og þá skaltu vidurkénna, ad eg em Drottinn.

17. En fremur taladi Drottinn til mín svolátandi ordum: 18. Þú mannsins son, Ísraelsmenn eru ordnir fyrir mér eins og óhreint silfur, sem blandad er med eiri, tini, járni og blýi; þeir verda allir ad fara í deigluna, því þeir eru óhreint silfur. 19. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur svo: af því þér allir erud ordnir ad óhreinu silfri, þá vil eg safna ydur saman í Jerúsalem. 20. Eins og blendíngi silfurs, eirs, járns, blýs og tins er kastad til samans í deiglu, til þess ad blása þar ad og bræda þad: eins skal eg í minni heiptarreidi safna ydur saman, láta ydur þar inn, og bræda ydur; 21. já, eg skal safna ydur saman, og blása mínum reidiloga ad ydur, svo þér skulud brádna þar. 22. Eins og silfrid brádnar í deiglunni, eins skulud þér brádna þar inni, og þér skulud finna, ad eg Drottinn úteys minni reidi yfir ydur.

23. En fremur taladi Drottinn til mín svolátandi ordum: 24. Þú mannsins son, seg þú til landsins: þú ert eins og óhreinsad land, hvar ekki hefir rignt á degi reidinnar a). 25. Þar er samsærisflokkur af spámønnum, sem ráda mønnum bana, ræna gripum og gérsemum og fjølga ekkjum í landinu, og eru líkir grenjandi ljónum, sem rífa sundur bráð sína. 26. Kénnimenn landsins brjála mínu løgmáli, vanhelga mína helgidóma, gjøra aungvan mun á því, sem heilagt er og óheilagt, greina ei hreint frá óhreinu; þegar mínir hvíldardagar verda óvirdtir, þá loka þeir aptur augunum, og eg sjálfur verd vanhelgadur midt á medal þeirra. 27. Landshøfdíngjarnir eru sem glepsandi vargar, útausa blódi, steypa mønnum í ógjæfu fyrir ávinníngs sakir. 28. Spámenn landsins ríða á kalki fyrir þá b), fara med hégómasjónir og lýgispádóma, og segja: „svo segir Drottinn alvaldur": en þótt Drottinn ekki hafi talad. 29. Almúginn í landinu fremur ofríki og rán, kúgar aumíngjann og fátæklínginn, og gjørir ránglega á hlut hins útlenda. 30. Eg leitadi medal þeirra ad einhvørjum, sem vildi hlada upp aptur girdínguna, og setja sig í skørdin móti mér, landinu til varnar, svo eg ekki legdi þad í eydi; en eg fann aungvan. 31. Nú vil eg útausa minni reidi yfir

V. 24. *a.* Þ. e. eins og þad land, hvørju Gud í reidi sinni synjar um regn, og er því ófrjóssamt. V. 28. *b.* Þ. e. þeir segja vondsku athæfi landstjórnaranna.

þá, tortýna þeim í mínum heiptareldi, og láta athæfi þeirra bitna á sjálfum þeim, segir Drottinn alvaldur.

## 23. Kapítuli.

Esekíel sýnir, ad eins og Samaría (Israelsríki) hafdi fengid refsíngu fyrir sinn ógudleika, eins átti Jerúsalem (Júdaríki), sem ekki var hóti betri, von á sømu hegníngu, 1—35; afmálar afgudadýrkun beggja ríkja, og þá lesti, sem henni voru samfara, 36—49.

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ordum: 2. þú mannsins son, einusinni voru tvær konur, sem voru dætur einnar módur; 3. þær voru lauslátar í æsku sinni, og frømdu hórdóm í Egyptalandi, létu þar taka á brjóstum sér og fara høndum um sinn meyarbarm. 4. Hin stærri hét Ohola a), en systir hennar Oholíba b); eg batt vid þær hjúskap, og fæddu þær mér syni og dætur. Sú er þýdíng nafna þeirra, ad Ohola er Samaría, en Oholíba Jerúsalem. 5. Ohola tók fram hjá mér, og feldi hug til fylgimanna sinna, þeirra Assyríumanna, sem til hennar komu; 6. þeir gengu allir á døkkbláum klædum, voru þad jarlar, landshøfdíngjar, frídir æskumenn og ríddarar, rídandi á hestum. 7. Hún ofurseldi sig þessum mønnum til saurlifnadar, øllum hinum útvøldustu mønnum af Assyríalandi, og flekkadi sig med skurdgodum allra þeirra, sem hún feldi hug sinn til. 8. Ekki lét hún ad heldur af samlagi vid Egyptalandsmenn, því þeir høfdu legid med henni í úngdæmi hennar, farid høndum um brjóst hennar, og gjørt hana drukkna af saurlífislosta. 9. Þess vegna seldi eg hana í hendur ástmanna sinna, í hendur Assyríumanna, sem hún hafdi felt hug sinn til; 10. þeir flettu hana klædum, tóku burt syni hennar og dætur, og vógu hana sjálfa med sverdi; vard hún svo ødrum konum til vidvørunar, eptir þad ad hegníngin var fram á henni komin. 11. Enn þótt Oholíba, systir hennar, sæi þetta, þá vard hún þó enn frekari í lostanum, og drýgdi enn meiri saurlifnad, en systir hennar. 12. Hún feldi ást til Assyríumanna, voru þad jarlar og landshøfdíngjar, er til hennar komu prúdbúnir, og riddarar, rídandi á hestum, alltsaman frídir æskumenn. 13. Eg sá, hvørsu hún saurgadi sig, og ad eitt og hid sama var háttalag beggja þeirra systra. 14. Þó vard þessi enn frekari í saurlifnadinum: hún sá mannsmyndir, sem dregnar voru á vegginn, þad voru myndir Kaldea, þeir voru máladir med menju, 15. høfdu belti um sig midja, og lánga lafdregla um høfud sér, allir voru þeir hinir hermannlegustu, og líkir Babelsmønnum, þeim Kaldeum, eins og þeir eru heima í fødurlandi sínu. 16. Undir eins og hún leit þá augum, feldi hún ást til þeirra, og gjørdi bod eptir þeim til Kaldealands. 17. Þá komu Babelsmenn til samlags vid hana, og flekkudu hana med saurlifnadi sínum; en þegar hún hafdi saurgast med þeim, vard hún leid á þeim. 18. Þegar hún nú framdi sinn saurlifnad og svívirdíngu svo berlega, þá vard eg einnig leidur á henni, eins og eg hafdi ordid leidur á systur hennar. 19. En hún vard æ frekari í hórdóminum, þar ed hún minntist síns æskutíma, þá hún framdi saurlifnad á Egyptalandi; 20. og nú feldi hún hug til þessara fylgimanna sinna, hvørra girndarbruni var sem girndarbruni asna og stódhesta. 21. Þannig hvarfst þú aptur til þess svívirdilega athæfis, sem þú framdir í æsku þinni, þá Egyptalandsmenn høfdu vid þig ástfarir, upptendradir af þínum æskublóma. 22. Þar fyrir, Oholíba! Svo segir Drottinn alvaldur:

V. 4. *a.* Ohola (eigin tjaldbúd) bendir til þeirrar sjálfgjørdu Gudsdýrkunar, er Jeróbóam Kóngur innleiddi í Israelsríki, 1 Kóng. 12, 26—33. *b.* Oholíba (mín tjaldbúd er í henni) lýtur til þess, ad musteri og helgidómur Drottins var í Jerúsalem.

sjá! eg skal æsa upp lagsmenn þína gégn þér, þá sem þér eru leidir ordnir, og láta þá veitast ad þér úr øllum áttum: 23. Babelsmenn, alla Kaldea med valdsmønnunum, ríkismønnunum og stóreflismønnunum, þar med alla Assýríumenn, hina frídu æskumenn, alla jarlana og landhøfdíngjana, kappana og ágjætismennina, alla rídandi á hestum; 24. þeir skulu fara í móti þér vígbúnir, med hjólvøgnum og mannfjølda, skjøldum og búklurum og hjálmum, og setjast umhverfis um þig; þeim vil eg dómsatkvædid í hendur fá, og þeir skulu dæma þig eptir sínum løgum. 25. Eg skal láta mína vandlætíngu nidur á þér koma, svo ad þeir skulu breyta vid þig heiptarlega, snída af þér nef og eyru, og þad sem eptir verdur af þér, skal fyrir sverdi falla; þeir skulu herleida þína syni og dætur, og þad sem þá verdur eptir af þér, skal verda eldsmatur; 26. þeir skulu færa þig af klædum og taka af þér skartid. 27. Þannig vil eg enda gjøra á þínum svívirdilega lifnadi og hórdómi þínum vid Egyptalandsmenn; þú skalt ekki framar líta vid þeim, og ekki framar hugsa til Egyptalands. 28. Því svo segir Drottinn alvaldur: sjá! eg sel þig í hendur þeim, sem þú hatar, í hendur þeirra, sem þú ert ordin leid á; 29. þeir skulu breyta vid þig haturslega, taka frá þér alla atvinnu þína, og láta þig eptir nakta og bera, svo svívirdíng þíns saurlifnadar, lauslætis og hóranar verdi opinber. 30. Þetta skal eg láta fram vid þig koma fyrir þann saurlifnad, sem þú hefir framid vid heidíngjana, og fyrir þad þú hefir saurgad þig á þeirra afgudum. 31. Þú hefir gengid gøtu systur þinnar, þess vegna rétti eg ad þér hennar bikar; 32. svo segir Drottinn alvaldur: þann djúpa og vída bikarinn systur þinnar skaltu afdrekka; hann skal gjøra þig ad athlægi og hádúng — svo fløgugódur er hann! 33. Þú skalt verda drukkin af hørmúngarinnar sterka drykk, af bikar ángistarinnar og sinnuleysisins, af bikar Samaríu, systur þinnar; 34. þenna bikar skaltu afdrekka og í botn søtra, brjóta hann sídan í mola, og sundurrífa þín brjóst, því eg hefi talad þad, segir Drottinn alvaldur. 35. Þar fyrir, svo segir Drottinn alvaldur: søkum þess þú gleymdir mér, og snérir baki vid mér, þá skaltu nú og gjøld taka fyrir þinn illlifnad og saurlifnad.

36. Enn fremur sagdi Drottinn til mín: þú mannsins son! ávíta þú Oholu og Oholíbu, og leid þeim fyrir sjónir sínar svívirdíngar: 37. því þær hafa drýgt hórdóm og flekkad hendur sínar med blódi, þær hafa framid hórdóm med afgudum, og þarmed brendu þær, þeim til fórnar, sín eigin børn, sem þær fæddu mér. 38. Auk þessa hafa þær gjørt mér þad, ad þær sama daginn saurgudu minn helgidóm og vanhelgudu mína hvíldardaga; 39. því þá þær høfdu slátrad børnum sínum, afgudunum til fórnar, gengu þær sama daginn inn í minn helgidóm, til þess ad vanhelga hann. Slíkt adhøfdust þær í mínu eigin musteri! 40. Þær sendu jafnvel eptir mønnum, sem koma skyldu af fjarlægum løndum; þegar þessir fengu bodin, þá komu þeir: fyrir þeirra skuld laugadir þú þig, barst lit í augu þér, og bjóst þig í skart; 41. sídan settist þú á veglegan bekk, þar stód fyrir framan uppbúid bord, og þar lagdir þú á mitt reykélsi og mitt vidsmjør; 42. hér var nú saungur upphafinn af þeim gudlausa manngrúa, var þar auk tignarmanna fjøldi minni háttar fólks, drykkjumenn, sem sóktir høfdu verid í eydimørkina, létu þeir armbauga á handleggi þeirra systra og veglegar kórónur á høfud þeim. 43. Eg hugsadi med sjálfum mér um þessa gømlu hóru: mun nokkurr enn vilja drýgja hórdóm med slíkri sem hún er? 44. jú, þeir gengu inn til hennar! Eins og geng-

id er inn til einnar hórkonu, eins gengu þeir inn til Oholu og Oholíbu, þeirra saurlífis kvenna. 45. En réttlátu mennirnir a), þeir skulu ljúka dóminum á þeim, dómi hórkvenna og mordkvenna; því hórkonur eru þær, og hafa blódflekkadar hendur. 46. Því svo segir Drottinn alvaldur: stefndu fjølmenni í gégn þeim, og ofursel þær til misþyrmíngar og herfángs; 47. mannfjøldinn skal gjøra þeim grjóthríd, og høggva þær sundur med sverdum, drepa sonu þeirra og dætur, og brenna upp hús þeirra. 48. Med þessu móti vil eg útrýma illlifnadinum úr landinu, og allar konur skulu láta sér ydar víti ad varnadi verda, ad þær breyti ekki eptir ydar skammarlega athæfi. 49. Þegar þeir svo láta ydar svívirdíngu nidur á ydur koma, og þér hljótid ad gjalda ydar syndsamlegu afgudadýrkunar, þá skulud þér vidurkénna, ad eg em Drottinn alvaldur.

## 24. Kapítuli.

Esekíel fyrirmyndar Jerúsalems eydileggíng med dæmisøgu um sodníngarpott, 1—14; og med háttalagi sínu eptir lát konu sinnar, 15—27.

1. Á níunda árinu, hann tíunda dag hins tíunda mánadar, taladi Drottinn til mín svolátandi ordum: 2. þú Mannsins son, skrifa þú upp hjá þér þenna dag, einmidt þenna dag; því einmidt á þessum degi kémur Babels Kóngur til Jerúsalemsborgar. 3. Ber þú upp eptirlíkíngu fyrir þessa þverúdarfullu kynslód, og seg til þeirra: Svo segir Drottinn alvaldur: lát þú upp pottinn, lát þú hann upp, og hell vatni í hann; 4. lát í hann svo mørg stykki, sem hæfilegt þykir, bestu stykkin, lærin og bógana, svo hann verdi fullur af mergjudum beinum; 5. hér til skaltu velja þad besta af hjørdinni; hlad sídan beinabudlúng undir pottinn, og lát svo vella, svo ad og svo þau bein sodni, sem í pottinum eru. 6. Því svo segir Drottinn alvaldur: vei þeirri blódseku borg, potti þeim, sem er med rydblettum, og hvørs rydflekkir ekki vilja af gánga. Fær sídan upp hvørt stykki eptir annad, án þess ad hlutast um, hvørt stykkid fyrst skal upp; 7. því borgin hefir látid þad blód, sem í henni er úthelt, renna á bera kletta, sem sólin skín á: hún hefir ekki úthelt því á jørdina, svo þad gjæti sígid nidur í moldina; 8. til þess ad láta heiptina og hefndina fram koma, hefi eg látid þad blód, sem í henni er úthelt, liggja á berum klettum, sem sólin skín á, svo þad skuli ekki leyna sér. 9. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur: vei þeirri blódseku borg! Eg vil einnig hlada stóran budlúng, 10. draga saman mikinn vid, kveykja upp svo heitan eld, ad kjøtid meyrni, seydid kryddist og beinin brenni; 11. setja sídan tóman pottinn, á glædurnar, svo hann verdi glóandi og eirid í honum brenni, til þess þau óklárindi, sem á honum eru, renni af, og ryd hans eydist. 12. En, hvad mikid sem fyrir honum er haft, lætur hann ekki undan ad heldur, og hans mikla ryd vill ei af honum gánga; þó hann sé eldborinn, situr þó rydid kyrt. 13. Óhreinleiki þinn kémur af þrái, vondslegri fyrirtekt, þar sem þú ekki verdur hreinn, þó eg vilji gjøra þig hreinan; þú verdur ekki fyrr hreinn, en eg læt mína heipt hvíla yfir þér. 14. Eg Drottinn hefi talad þad: þad skal verda: eg skal framkvæma þad; eg skal ekki undan láta og ekki vægja og aungva medaumkvun hafa; þeir b) skulu dæma þig, eins og þitt athæfi og þín verk hafa til unnid, segir Drottinn alvaldur.

15. Enn fremur taladi Drottinn þannig til mín: 16. þú mannsins son, eg vil taka frá þér lysting augna þinna c) í einni plágu; en þá skaltú ekki kveina eda gráta, og ekkért tár

V. 45. *a.* Kaldear, sem áttu ad framkvæma reididóm Drottins á Jerúsalem. V. 14. *b.* Kaldear. V. 16. *c.* Þ, e. þína ástkæru konu.

skal þér á augu koma; 17. andvarpa þú í
hljódi, en aungva líksorg skaltu vid hafa: falda
þér med motri þínum, lát skó þína á fætur
þér, þú skalt eigi byrgja skégg þitt og eingrar
sorgarfædu neyta. 18. Eg taladi til fólks-
ins um morguninn, en um kvøldid dó kona
mín; næsta morgun gjordi eg eins og mér var
bodid. 19. Þá sagdi fólkid til mín; viltu
ekki segja oss, hvad þad hefir ad þýda, sem
þú gjørir? 20. Eg svaradi þeim: Drottinn
taladi til mín, og sagdi: 21. Seg Ísraels-
mønnum: svo segir Drottinn alvaldur: sjá! eg
vil vanhelga minn helgidóm a), sem er yd-
vart hrós og styrkur, lystíng ydar augna og
ydar hjartans eptirlángan; og ydar synir og
dætur, sem þér skiljid þar eptir, skulu fyrir
sverdi falla. 22. Þá munud þér gjøra þad,
sem eg gjøri nú: þér munud ekki hylja skégg
ydar, eingrar sorgarfædu neyta, 23. hafa motr-
ana á høfdum ydar, og skó á fótum, ekki
kveina, ekki gráta, heldur munud þér vanmegn-
ast yfir ydar syndum, og andvarpa hvørr med
ødrum. 24. Þá skal Esekíel vera ydar fyrir-
mynd: allt þad sem hann gjørir nú, þad mun-
ud þér gjøra, þegar þetta fram kémur, og
þá skulud þér vidurkénna, ad eg em Drottinn
alvaldur. 25. En þú, mannsins son! þann
dag, er eg hefi tekid frá þeim þeirra styrk,
þeirra ununarprýdi, lystíng augna þeirra, þeirra
hjartans eptirlaungun, syni þeirra og dætur:
26. þann sama dag skal flóttamadur nokk-
ur koma til þín, til ad gjøra þetta heyrum
kunnugt: 27. og á þessum sama degi skal
munnur þinn upplúkast vid komu flóttamanns-
ins; þá skalt þú tala, og ekki lengur vera
ordlaus, því þú skalt vera þeim fyrirmynd-
ar teikn, og þeir skulu vidkannast, ad eg em
Drottinn.

# 25. Kapítuli.

Esekíel spáir fyrir Ammonítum, 1 — 7; Móabítum, 8 — 11; Edomítum, 12 — 14; Filistum, 15 — 17.

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ord-
um: 2. þú mannsins son, snú þér móti Am-
monítum, og spá fyrir þeim, 3. og seg til Am-
moníta: heyrid ord Drottins, hins alvalda! svo
segir Drottinn alvaldur: fyrir þad, ad þú
hlakkar yfir því, ad minn helgidómur er van-
helgadur, og yfir því, ad Ísraelsland er í eydi
lagt, og Júdaríkis innbúar hafa ordid ad fara
í útlegd: 4. þar fyrir, sjá! eg géf þig Aust-
urvegsmønnum til eignar; þeir skulu setja kví-
ar sínar í þínu landi, og reisa þar búdir sín-
ar, þeir skulu eta þinn ávøxt og drekka þína
mjólk; 5. eg skal gjøra Rabba ad úlfaldastíu,
og land Ammoníta ad hjardarbóli, svo þér
skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn. 6. Því
svo segir Drottinn alvaldur: fyrir þad, ad þú
klappar lof í lófa, og gétur í hvørugan fótinn
stígid af ofdrambs gledi yfir Ísraelslandi, 7.
þar fyrir, sjá! eg útrétti mína hønd í móti
þér, læt þig verda heidíngjum ad herfángi, af-
mái þig úr tølu þjódanna, týni þér úr tølu land-
anna, og eydilegg þig, svo þú vidurkénnir, ad
eg em Drottinn.

8. Svo segir Drottinn alvaldur: af því
Móabsmenn og Seirsmenn b) segja: sjá! Júda-
menn eru eins og allar adrar þjódir eru c):
9. þar fyrir, sjá! eg greidi Austurvegsmønn-
um veg inn í Móabsland, þeim megin sem
borgirnar eru, þær ytstu borgir, sem eru prýdi
landsins, svo sem Bet-Jesímót, Baal-Meón,
og allt til Kirjatajim. 10. Eins og eg géf
þeim land Ammoníta til eignar, til þess ad
Ammoníta skuli ei framar minst verda medal
þjódanna: 11. eins mun eg og láta refsidóminn

V. 21. *a.* Þ. e. eg læt mitt musteri verda heidíngjum ad herfángi. V. 8. *b.* Edomsmenn. *c.* Þeirra Gud er ei mattugri enn annara þjóda gudir, fyrst þeim vegnar ei betur enn ødrum.

gánga yfir Móabsmenn, svo þeir vidurkénni, ad eg em Drottinn.

12. Svo segir Drottinn alvaldur: af því Edomsmenn breyta vid Júdamenn af hefndargirni, og misgjøra stórlega med því ad hefna sín á þeim: 13. þar fyrir, svo segir Drottinn alvaldur, vil eg útrétta mína hønd í gégn Edomslandi, eyda þar mønnum og fénadi, og gjøra landid ad audn, frá Teman og til Dedans skulu þeir fyrir sverdi falla; 14. eg vil láta mitt fólk, Ísraelsmenn, framkvæma mína hefnd á Edomsmønnum: þeir skulu breyta vid Edomsmenn eptir minni heiptarreidi, svo þeir skulu finna, ad hefndin kémur frá mér, segir Drottinn alvaldur.

15. Svo segir Drottinn alvaldur: fyrir þad, ad Filistar eru hefndargjarnir, og af ofdrambi halda fram hefndinni med ævarandi fjandskap, til eydileggíngar: 16. þar fyrir, svo segir Drottinn alvaldur, vil eg útrétta mína hønd móti Filistum, tortýna Kretum, og afmá þá sem eptir eru ordnir vid hafsstrøndina; 17. eg skal koma stórum hefndum fram á þeim, og refsa þeim med grimd, svo þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn, þá eg læt mína hefnd koma fram á þeim.

## 26. Kapítuli.

*Esekíel spáir fyrir eydileggíngu Týrusborgar, lýsir áhlaupi Nebúkadnesars á borgina, 1—14; og skélfíngunni, sem vid þad kom yfir nálægar þjódir, 15—21.*

1. Á ellefta árinu, þann fyrsta dag hins fyrsta mánadar, taladi Drottinn til mín svolátandi ordum: 2. þú mannsins son, fyrir þad, ad Týrusborg hlakkar yfir Jerúsalem, og segir: nú eru þjódhlidin nidurbrotin, nú kémur (øll verdslun) til mín, nú verd eg full, fyrst hún er ordin aud; 3. þar fyrir, svo segir Drottinn alvaldur, sjá! eg skal rísa upp í móti þér, Týrusborg! eg skal reisa margar þjódir í gégn þér, eins og sjáfarhafid reisir sínar bylgjur; 4. þær skulu umbilta múrveggjum Týrusborgar, og nidurbrjóta hennar turna; eg skal burtsópa rykinu af henni og gjøra hana ad berum kletti; 5. hún skal verda ad verstød úti í hafinu, til ad breida net á: því eg hefi talad þad, segir Drottinn alvaldur; og hún skal verda þjódunum ad herfángi; 6. dætur hennar, sem á sléttlendinu eru, skulu med sverdi drepnar verda, og þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn. 7. Því svo segir Drottinn alvaldur: sjá! eg leidi Nebúkadnesar, Babels Konúng, Konúng Konúnganna, gégn Týrusborg, frá nordri, med hestum, vøgnum, riddurum, miklum mannfjølda og mørgum þjódum; 8. hann skal med sverdi vega dætur þínar á sléttlendinu, setja víggarda um þig, hleypa upp jardhryggjum, og reisa herskjøldu móti þér; 9. hann skal berja á þínum múrveggjum med sínu herskapar verkfæri, og nidurrífa þína turna med sínum hervopnum; 10. af hestagrúanum skaltu hulin verda í jóreyk, og þínir múrar skulu skjálfa af gný riddaranna, hjólanna og vagnanna, þegar hann fer inn um þín borgarhlid, á þann hátt sem menn fara inn í yfirunninn stad; 11. hann skal nidurtroda øll þín stræti med hrossahófum, drepa nidur fólk þitt med sverdi, og þær líkneskjur, sem þú treystir á, skulu hrapa til jardar; 12. þeir skulu ræna þínum audi, hripsa burt þinn kaupeyri, brjóta nidur borgveggi þína, nidurrífa þín dýrdlegu hús, og varpa á sjó út húsagrjótinu, vidnum og rofinu. 13. Eg skal lægja klid þinna saungva, og hljómur þinna harpna skal ei framar heyrdur verda; 14. eg skal gjøra þig ad berum kletti; þú skalt verda ad verstød, til ad breida net á; þú skalt ekki framar upp bygd verda: því eg Drottinn hefi talad þad, segir Drottinn alvaldur.

15. Svo segir Drottinn alvaldur til Týrusborgar: hvørt munu ei sjóbygdirnar skélfast vid dýnkinn af þínu hruni, vid hljód hinna særdu, og vid mannfallid, sem í þér mun verda? 16. Allir hafsins drottnar munu stíga nidur af sínum hástólum, leggja nidur skrúd sitt, og fara af glitklædum sínum, en íklædast hrædslunni, setjast á jørdina, óttast hvørt augnablik, og verda sinnulausir út af þér; 17. þeir munu upp hefja harmaljód um þig, og segja: hvørnin ertú til grunna gengin, þú vídfræga sjáfarborg, sem varst svo voldug á hafinu! þú og þínir innbyggjendur, sem allir sjóbyggjar voru hræddir vid! 18. Sæløndin titra nú á degi þíns falls, og eyarnar í hafinu skélfast yfir óførum þínum. 19. Því svo segir Drottinn alvaldur: þegar eg gjøri þig ad eydiborg, eins og þær borgir, sem óbygdar eru; þegar eg læt hafid streyma yfir þig, og mørg vøtn hylja þig; 20. þegar eg steypi þér nidur til þeirra, sem ofan eru farnir í grøfina, til manna frá fyrri tídum, og læt þig búa í undirheimi medal borgarústa frá fornøld, hjá þeim sem í grøfina eru nidurstignir, svo þú ekki verdir byggileg framar: þá skal eg láta verda blómlegt á landi enna lifendu. 21. Eg skal leggja þig í eydi skyndilega; þú skalt verda ad aungvu; þín skal verda leitad, en aldrei skaltu finnast til eilífdar, segir Drottinn alvaldur.

## 27. Kapituli.

Harmasaungur yfir Týrusborg: um vegsemd borgarinnar, 1—25; og um hennar ófarir, 26—36.

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ordum: 2. Þú mannsins son, hef þú upp harmasaung um Týrusborg! 3. Seg til Týrusborgar, sem liggur á sjáfarbakkanum og verdslar vid þjódir úr mørgum fjarlægum løndum: Svo segir Drottinn alvaldur: þú segir, Týrusborg: eg em algjør ad fegurd. 4. Takmørk þín eru midt í hafinu, þínir uppbyggjendur hafa fullkomnad þína fegurd: 5. Þeir hafa smídad alla þína byrdíngu af furutrjám frá Senír, og vøldu sedrusvid á Líbanon og gjørdu þar af þín siglutré: 6. árar þínar gjørdu þeir úr eikitrjám frá Basansfjalli, en þóptur þínar gjørdu þeir úr búsvidi frá Kitt-eyum, og greyptu inn í þær filsbein; 7. þú létst slá út hvítum vidullardúki glitofnum frá Egyptalandi, og hafdir hann fyrir skipsmerki: tjøld þín voru úr døkkblárri ull og purpura frá Eliseyum. 8. Sídons-búar og Arvads-menn voru hásetar þínir, en listkjænir menn, sem þú sjálf áttir, Týrusborg! þeir voru þínir skipstjórnarmenn; 9. gamlir menn og hagleiksmenn frá Gebal voru hjá þér til ad gjøra ad spjøllunum; øll hafskip og sjófarendur komu til þín til ad kaupa varníng þinn. 10. Persar, Lydar og Mórlendíngar þjónudu í her þínum, og voru þínir strídsmenn, þeir festu upp búklara og hjálma hjá þér, og þeir gjørdu þig veglega; 11. Arvads-menn og þínir eigin lidsmenn voru umhverfis á múrveggjum þínum, og Gammadar í turnum þínum, þeir høfdu fest upp skjøldu sína alla vega á þínum múrveggjum, og þessir menn fullkomnudu fegurd þína. 12. Tarsis-borg átti kaupskap vid þig, af því þú áttir gnótt allskonar kaupeyris; hún flutti silfur, járn, tin og blý á þitt kauptorg. 13. Javan, Túbal og Mesek keyptu vid þig, og fluttu mansmenn og eirsmídi til þinnar kaupstefnu; 14. frá Tógarma voru reidskjótar, strídshestar og múlasnar færdir á þitt kauptorg. 15. Dedansmenn keyptu vid þig (því margir eyamenn voru þínir kaupunautar), þeir gáfu þér filstønn og ebentré fyrir vørur þínar. 16. Sýrlendíngar keyptu vid þig, søkum þess þú áttir gnótt allskonar vørusmídis; þeir fluttu rúbín, purpura, glitofna dúka, lín, kórhalla og krystalla á þitt kauptorg. 17. Júdaland og Ísraelsland keyptu

og vid þig, og fluttu til þinnar kaupstefnu hveiti frá Minnít, sætabraud, hunáng, vidsmjør og balsamskvodu. 18. Damaskusborg keypti vid þig, søkum þess þú áttir gnótt allskonar vørusmídis og kaupeyris; hún færdi þér vín frá Kalybon og mjallhvíta ull. 19. Vedan og Javan fluttu tóvinnu á þína kaupstefnu; smídad járn, ángvidi og ilmreyr kom á þitt kauptorg. 20. Dedan seldi þér sødul=áklædi til ad rída á. 21. Arabar og allir Kedars høfdíngjar voru þínir kaupunautar, og seldu þér feit lømb, hrúta og hafra. 22. Kaupmenn frá Saba og Raema keyptu vid þig, og færdu allskonar bestu kryddjurtir, dýrlega gimsteina og gull til þinnar kaupstefnu. 23. Haran, Kanne, Eden, og kaupmenn frá Saba, Assúr og Kilmad voru þínir kaupunautar; 24. þessir seldu þér á kauptorgi þínu dýrindis klædi, døkkbláar og glitofnar yfirhafnir, og fullar kistur af alla vega litum vefnadi, bundnar med taugum og vel umvandadar. 25. Skip Tarsisborgar efldu mest þína kaupverdslun; þar af ertu ordin audug og mjøg voldug midt á sjáfarhafinu.

26. Hásetar þínir hafa flutt þig út á sjáfardjúpid, en austanvindurinn sundurbrýtur þig midt á hafinu; 27. þín audlegd, þinn kaupeyrir, þínar vørur, þínir sjómenn og stýrimenn, þeir sem gjørdu ad spjøllum þínum, þínir verdslunarmenn, allir þeir hermenn, sem þú átt, og allur sá mannfjøldi, sem þú hefir innan borgar, munu hrapa í sjóinn, þann dag er þú gengur til grunna. 28. Vid hljódid af ópi þinna skipstjórnarmanna munu borgar umvørpin skjálfa. 29. Allir hásetar, sem á árum halda, allir skipstjórnarmenn á hafinu, munu stíga af skipum sínum, leita til lands og standa þar; 30. þeir munu æpa hástøfum yfir þér, hljóda upp hørmulega, ausa moldu yfir høfud sér, velta sér í øsku, 31. raka sig berskøllótta út af þér, taka upp sorgarbúníng, og gráta yfir þér sorgbitnir, med hørmulegu kveini; 32. þeirra børn munu upphefja sorgarsaung, og harma yfir þér: hvørr var jafnoki Týrusborgar, þeirrar er nú liggur þøgul á mararbotni? 33. med þínum varníngi, sem fluttur var yfir høfin, fæddir þú margar þjódir: med gnótt þinnar audlegdar og kaupeyris audgadir þú Konúnga jardarinnar; 34. nú liggur þú brotin af bylgjum, nidursøkt í sjáfardjúpid: þinn varníngur og allur þinn mannfjøldi søkk ásamt med þér. 35. Allir innbyggjendur fjarlægra landa skélfast yfir þér, og þeirra Konúngum bløskrar svo þeir skipta litum. 36. Verdslunarmenn þjódanna blýstra ad þér; þér hefir voveiflega verid í burtu svipt, og þú verdur ekki framar til ad eilífu.

## 28. Kapítuli.

Esekíel lýsir ofmetnadi Týrusborgar Kóngs, 1—10; Harmasaungur um upphefd og nidurlægíng hans, 11—19; spádómur móti Sídon, 20—24; huggunarord til Gydínga, 25—26.

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ordum: 2. þú mannsins son, seg høfdíngjanum í Týrusborg: Svo segir Drottinn alvaldur: af því þú segir í ofdrambi þínu, „eg er Gud, og sit í hásæti Guds midt á hafinu"; af því þú, sem ert madur, en einginn Gud, hugsar, ad þitt hyggjuvit sé eins og vísdómur Guds; 3. af því þú þykist vitrari enn Daníel, svo ad einginn leyndardómur sé hulinn fyrir þér; 4. af því þú þykist hafa aflad audlegdar, safnad gulli og silfri í hirdslur þínar med þínum eigin vitsmunum og hyggindum, 5. og aukid þessa audlegd med þínu stóra verdslunarviti, svo ad þú ert ordinn dramblátur af ríkidæminu: 6. þess vegna segir Drottinn alvaldur svo: af því þú hugsar, ad þitt hyggjuvit sé eins og vísdómur Guds: 7. þess vegna

sjá þú! eg sendi móti þér útlenda menn, þá
mestu ofríkismenn í heimi; þeir skulu med
brugdnum sverdum eyda þeim fögru verkunum
þinnar vitsku, og gjöra þína vegsemdar prýdi
ad smán; 8. þeir skulu steypa þér nidur í
gröfina, svo þú skalt fá dauddaga hinna vopn-
bitnu midt á sjáfarhafinu. 9. Hvört muntu
þá segja til vegendanna: eg em Gud? Madur
skaltu reynast, en einginn Gud, í hendi bana-
manna þinna; 10. þú skalt deya dauda hinna ó-
umskornu í höndum útlendínga: því eg hefi
talad þad, segir Drottinn alvaldur.

11. Enn fremur taladi Drottinn til mín
þessum ordum: 12. þú mannsins son! kyrja
þú upp harmasaung um Týrusborgar Konúng,
og seg til hans: Svo segir Drottinn alvald-
ur: þú varst einhvörr hinn gjörfuglegasti mad-
ur, mesti vitsmunamadur, og fullkominn ad feg-
urd; 13. þú bjóst í Eden, aldingardi Guds a),
varst þakinn allskonar dýrum steinum, Sardís-
us, Tópas, Beryllus, Krýsolítus, Sardonyx,
Jaspis, Saffír, Karbúnkúlus, Smaragdus og
gulli; þann dag er þú komst til (ríkis), var
þér fagnad med bumbuslætti og pípublæstri;
14. þú varst eins og yfirskyggjandi Kerúb,
sem breidir út vængi sína; eg hafdi sett þig á
Guds heilaga fjall, hvar þú gékkst medal ljóm-
andi gimsteina. 15. Þér lék allt í lyndi, frá
því þú komst til (ríkis) og þar til ad gudleys-
id vard opinbert um þig. 16. Sökum þinnar
margföldu verdslunar vardstu hid innra fullur
ránglætis, og þú syndgadir; þess vegna vil eg
byggja þér út, sem vanheilögum, af fjalli
Guds, og burtskúfa þér, þú yfirskyggjandi
Kerúb, frá þeim ljómandi gimsteinum. 17.
Þitt hjarta vard upphrokad af þinni fegurd,
þú vanbrúkadir þína vitsmuni sökum þinnar
vegsemdar prýdi; þess vegna vil eg varpa þér
til jardar í augsýn annara Konúnga, og láta
þá horfa á þig. 18. Þú hefir vanhelgad þinn
helgidóm med þínum margföldu misgjördum
og ránglátu kaupverdslun; þess vegna vil eg
láta eld útgánga af sjálfum þér, hann skal eyda
þér, og eg skal gjöra þig ad ösku á jördunni,
í augsýn allra sem á þig horfa. 19. Allar
þjódir, sem þekkja til þín, skulu skélfast yfir
þér; þú skalt voveiflega í eydi lagdur verda, og
ekki framar til vera.

20. Enn fremur taladi Drottinn til mín þess-
um ordum: 21. þú mannsins son, snú andliti
þínu gégn Sídonsborg, og spá fyrir henni;
22. og seg: Svo segir Drottinn alvaldur: sjá,
eg rís upp á móti þér, Sídon, eg vil sýna
mína dýrd, mitt almætti á þér, svo ad menn
skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn, þegar eg
læt dóminn yfir hana gánga, og auglýsi á
henni minn heilagleik: 23. eg vil senda henni
drepsótt, og blóds úthellíng á hennar stræti;
í henni skulu helslegnir menn liggja, fallnir
fyrir sverdinu, sem alla vega skal yfir hana
gánga; og menn skulu vidurkénna, ad eg em
Drottinn. 24. Í aungvum af nábúalöndun-
um, sem fyrr meir hafa fyrirlitid Ísraelsmenn,
skal þá framar vera nokkur þistill, sem gjöri
þeim mein, eda þyrnir, sem særi þá; og þeir
skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn alvaldur.

25. Svo segir Drottinn alvaldur: þegar eg
hefi saman safnad Ísraelsmönnum frá þeim
þjódum, medal hvörra þeir eru útdreifdir, og
eg hefi auglýst minn heilagleik á þeim í aug-
sýn heidíngjanna, þá skulu þeir búa í sínu
landi, sem eg gaf mínum þjóni Jakob; 26.
þar skulu þeir óhultir búa, byggja hús, og
gródursetja (planta) víngarda; óhultir skulu þeir
búa mega, þegar eg hefi látid refsidóminn
gánga yfir alla nábúa þeirra, sem ádur fyrir-
litu þá; og þá skulu þeir vidurkénna, ad eg
em Drottinn, þeirra Gud.

V. 13. *a.* Þ. e. í fegursta landsálfu jardarinnar.

## 29. Kapítuli.

Tveir spádómar um Egyptaland.

1. Á tíunda árinu, tólfta dag hins tíunda mánadar, taladi Drottinn til mín svolátandi ordum: 2. þú mannsins son, snú þínu augliti í gégn Faraó, Egyptalands Konúngi, spá fyrir honum og øllu Egyptalandi, 3. tala og seg: svo segir Drottinn alvaldur: sjá, eg rís í gégn þér, Faraó, Egyptalands Konúngur, þú mikli krókódíll, sem liggur í þínum árstraumum, og segir: fljótid er mitt, eg hefi búid þad til handa mér. 4. Eg skal setja króka í kjálka þína, og láta fiskana í þínu fljóti loda á hreistri þínu; eg skal draga þig upp af fljótinu, og allir fiskarnir í þínu fljóti skulu loda á þínu hreistri; 5. eg skal varpa þér út á eydimørku ásamt med øllum fiskunum úr fljótinu; þú skalt liggja þar á bersvædi; leifar þínar skulu ekki verda saman tíndar eda uppteknar, heldur skal eg láta þig verda dýrum jardarinnar og fuglum himins ad bráð; 6. og allir innbúar Egyptalands skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn. Af því þeir hafa verid Ísraelsmønnum eins og reyrstafur: 7. því þegar þeir tóku þig í hønd sér, brotnadir þú, og hrufladir þá alla á sídunni, og þegar þeir studdust vid þig, brast þú í sundur, og linadir þá í øllum mjødmunum; 8. þar fyrir, svo segir Drottinn alvaldur: sjá, eg skal láta sverdid koma yfir þig, og gjøreyda hjá þér mønnum og fénadi; 9. Egyptaland skal verda ad audn og øræfum, og þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn. Af því hann sagdi: eg á fljótid, eg hefi búid þad til; 10. þar fyrir, sjá! eg fer á móti þér og þínu fljóti, og gjøri Egyptaland ad øræfum og eydimørku frá Migdol til Syene, allt ad landamerkjum Blálands; 11. þar skal einginn madur um fara, þar skal einginn fénadur gánga, og landid skal vera óbygt í 40 ár; 12. eg skal gjøra Egyptaland ad audn, eins og ønnur eydilønd, og borgir þess skulu liggja í eydi, eins og adrir nidurbrotnir stadir, í 40 ár; eg skal tvístra Egyptalandsmønnum medal þjódanna, og dreifa þeim út um løndin. 13. Samt sem ádur, svo segir Drottinn alvaldur, þegar 40 ár eru lidin, vil eg saman safna Egyptalandsmønnum frá þeim þjódum, medal hvørra þeir eru sundurdreifdir; 14. eg vil leida þá herleiddu Egyptalandsmenn heim aptur, flytja þá aptur inn í landid Patrós, þad land, hvadan þeir eru upprunnir, og þar skulu þeir vera lítilfjørlegt ríki; 15. þad ríki skal verda lítilfenglegra enn ønnur ríki, og þad skal ekki framar hefja sig upp yfir þjódirnar; eg skal lítillækka þá, svo ad þeir skulu ekki drottna yfir ødrum þjódum. 16. Og Ísraelsmenn skulu ekki framar setja til þeirra þad traust, sem minni mig á þá yfirsjón þeirra, ad þeir sáu þar til athvarfs, sem Egyptalandsmenn voru; þeir skulu þá vidurkénna, ad eg em Drottinn alvaldur.

17. Svo bar til á 27da árinu, þann fyrsta dag hins fyrsta mánadar, ad Drottinn taladi til mín þessum ordum: 18. þú mannsins son! Nebúkadnesar, Babels Konúngur, hefir látid herlid sitt vera í þúngum starfa vid Týrusborg: høfud allra hans manna eru ordin hárlaus, og axlir þeirra gnúnar; og þó hefir hvørki hann né herlid hans fengid neitt af Týrusborg fyrir þann starfa, sem hann hefir haft fyrir henni. 19. Þar fyrir, svo segir Drottinn alvaldur: sjá, eg géf Nebúkadnesari, Babels Konúngi, Egyptaland, hann skal flytja burt þess innbyggjendur, og fara þar med rán og rifs, þad skulu vera launin handa herlidi hans. 20. Fyrir starfa þann, sem hann hefir haft fyrir borginni, géf eg honum Egyptaland til launa, því þeir hafa verid í minni þjónustu, segir Drottinn alvaldur. 21. Um þær mundir mun eg láta vaxa styrk Ísraelsmanna, og þá mun eg upp lúka þínum munni

á medal þeirra, svo ad þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn.

## 30. Kapítuli.

Um hernad Nebúkadnesars í Egyptalandi, 1—19; og um undirokun landsins, 20—26.

1. Enn fremur taladi Drottinn til mín
þessum ordum: 2. þú mannsins son, spá og
seg: Svo segir Drottinn alvaldur: hefjid upp
harmahljód: vei þeim degi! 3. því dagurinn
er nálægur, dagur Drottins er nálægur; sá
dimmi dagur, sá tiltekni tími þjódanna, mun
koma. 4. Sverdid skal koma yfir Egyptaland;
og Bláland skal skélfast, þegar mannfallid verd-
ur í Egyptalandi, og innbúar landsins verda
herteknir, og grundvellir þess umturnadir; 5.
Blálendíngar, Mórlendíngar, Lýdar, allur sá út-
lendski þjódblendíngur, Kúbar og innbúar sam-
bandslandanna skulu ásamt med þeim fyrir
sverdi falla. 6. Svo segir Drottinn: lidveitslu-
menn Egyptalands skulu falla, og hroki þess
yfir styrk sínum skal lægdur verda; frá Migdol
og allt til Syene skulu innbyggjendurnir fyrir
sverdi falla, segir Drottinn alvaldur. 7. E-
gyptaland skal liggja í eydi, eins og ønnur
eydilønd, og borgir þess skulu verda, eins og
adrir nidurbrotnir stadir; 8. og þeir skulu vidur-
kénna, ad eg em Drottinn, þegar eg legg eld í
Egyptaland, og allir lidveitslumenn þess tor-
týnast. 9. Á þeim degi skulu sendibodar fara
frá mér á skipum, til ad flytja þessi ótídindi
til þeirra ugglausu Blálendínga, og hjá þeim
skal ønnur eins skélfíng upp rísa, eins og í
Egyptalandi á þess degi; því, sjá! ógjæfan sted-
jar ad. 10. Svo segir Drottinn alvaldur: eg
skal láta Nebúkadnesar Babels konúng þagga
nidur glauminn í Egyptalandi; 11. þad er bú-
id ad gjøra bod eptir honum og hans mønn-
um med honum, þeim mestu ofbeldismønn-
um, sem til eru, til ad herja landid; þeir skulu
fara herskildi yfir Egyptaland og vinna þar hin
mestu manndráp. 12. Eg skal uppþurka vatns-
straumana, selja landid í hendur illþýdis, og láta
útlenda menn eydileggja þad med øllu því, sem
í því er; eg Drottinn hefi talad þad. 13.
Svo segir Drottinn alvaldur: eg vil afmá skurd-
godin og eyda afgudunum í Nóf, einginn egyptsk-
ur høfdíngi skal framar til vera, því eg vil út-
breida óguar skélfíngu yfir Egyptaland: 14.
eg vil eydileggja Patrós, leggja eld í Sóan, og
láta dóminn gánga yfir Nó: 15. eg vil útausa
minni heipt yfir Sín, varnarvirki Egyptalands,
og eydileggja Hammon-Nó. 16. Eg vil upp-
kveikja eld í Egyptalandi, Sín skal titra og
skjálfa, Nó skal yfirunnin verda, og Nóf
skal adsókn mæta á bjørtum degi; 17. úngir
menn í On og Búbastus skulu fyrir sverdi falla,
en adrir innbyggjendur í útlegd fara. 18. Í
Takpankes skal dagurinn verda dimmur, þegar
eg sundurbrýt ríkissprota Egyptalands, og
dramblætid yfir veldi þess nidurbælist þar;
ský skal hylja borgina, þegar dætur hennar
verda ad fara í útlegd. 19. Þannig vil eg
láta refsidóminn koma yfir Egyptaland, svo
þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn.

20. Á ellefta árinu, þann sjøunda dag
hins fyrsta mánadar, taladi Drottinn til mín
svolátandi ordum: 21. þú mannsins son, eg
hefi brotid armlegg Faraós, Egyptalands Kon-
úngs; sjá! þad er ei um hann bundid, ad
hann megi heill verda, ekki lagdar vid hann
spelkur, ad hann géti styrkur ordid og fái
sverdinu valdid. 22. Þar fyrir segir Drott-
inn alvaldur svo: sjá, eg rís upp móti Faraó,
Egyptalands Konúngi, brýt armleggi hans,
þann heila jafnt og þann brotna, og læt sverd-
id falla úr hendi hans; 23. eg vil tvístra
Egyptalandsmønnum medal þjódanna, og dreifa
þeim út um løndin. 24. Eg vil styrkja arm-
leggi Babels Konúngs og fá honum sverd mitt

í hønd, en brjóta armleggi Faraós, svo hann
skal liggja stynjandi fyrir fótum honum, eins
og helsár madur; 25. eg vil styrkja arm-
leggi Babels Konúngs, en armleggir Faraós
skulu nidur síga, svo ad menn skulu vidurkénna,
ad eg em Drottinn, þegar eg fæ Babels Kon-
úngi mitt sverd í hønd, og hann bregdur því
á móti Egyptalandi. 26. Þá skal eg tvístra
Egyptalandsmønnum medal þjódanna og dreifa
þeim út um løndin, svo ad þeir skulu vidur-
kénna, ad eg em Drottinn.

## 31. Kapítuli.

Esekíel lýsir tign og veldi Asýríu Konúngs, 1 — 9; falli hans og eydileggíngu, 10 — 17; somu afdrif skyldi Faraó sá, 18; þetta er sagt til vidvörunar þeim umsetnu Jerúsalemsmønnum, sem til lengstra laga væntu sér styrks frá Egyptalandi.

1. Á ellefta árinu, þann fyrsta dag hins
þridja mánadar, taladi Drottinn til mín svo-
látandi ordum: 2. þú mannsins son, seg til
Faraós, Egyptalands Konúngs, og til hans
fjølmennis: hvørjum ertu líkur ad mikilleik?
3. Sjá þú! Asshýríu Konúngur var eins og
Sedrusvidur á Líbanonsfjalli, hans laufgreinir
voru fagrar, og veittu forsælu, sem þéttur
skógur væri: hann var geysi hár, og hans
flóknu greinir voru allaufgadar. 4. Vatns-
gnóttin gjørdi hann stóran, og vatnageimur-
inn hávaxinn; straumar vatnageimsins runnu
umhverfis hans gródrarreit, og veittu vatns-
ráspum sínum til allra skógartrjánna: 5. þess
vegna vard hann hávaxnari enn øll tré í skóg-
inum, hans kvistir fjølgudu, hans limar lengd-
ust, vegna ríkuglegrar vatnsgnóttar útbreiddi
hann sínar greinir. 6. Allir fuglar himinsins
hreidrudu sig á hans kvistum, øll skógardýrin
løgdu úngum sínum undir limar hans, og
allskonar stórþjódir bjuggu í hans forsælu.
7. Hann var fagur søkum síns mikilleiks og
sinna laungu greina, því rót hans hafdi mikla
vatnsgnótt. 8. Eingin tré skygdu á hann í
aldingardi Guds; fururnar jøfnudust ekki vid
kvistu hans, og hlynirnir ekki vid hans lim-
ar; ekkért tré í aldingardi Guds var honum
jafnt ad fegurd, 9. eg hafdi prýdt hann med
fjølda af greinum, og øll Edenstré í aldingardi
Guds øfundudu hann.

10. Og þó taladi Drottinn alvaldur svo:
søkum þess hann var ordinn mjøg hávaxinn
og hafdi útbreidt sitt lauf innan um þær sam-
anflæktu greinir, og metnadist af stærd sinni,
11. þá selda eg hann í hendur yfirhøfdíngja
þjódanna, ad hann skyldi fara med hann eptir
vild sinni; því søkum síns ógudlega athæfis
útskúfadi eg honum. 12. Útlendir menn, hin-
ir mestu ofríkismenn í heimi, hafa rifid upp
þenna Sedrusvid, og fleygt honum á fjøllin,
svo ad ángar hans eru nidurfallnir í alla dali,
og limar hans liggja sundurbrotnar í øllum
hvylftum jardarinnar; allar þjódir jardarinnar
eru viknar burt úr forsælu hans, og hafa yfir-
géfid hann. 13. Allir fuglar himinsins sátu
nú á hans fallna stofni, og øll dýr skógarins
lágu hjá limum hans: 14. til þess ad eingin
þau tré, sem á vatnabøkkum eru, skuli metn-
ast af sinni stærd og útbreida sitt lauf innan
um þær samanflæktu greinir, og til þess ad
eingin vatnsvøkvud tré skuli treysta á þau fyrir
þeirra stærdar sakir; því þau a) eru øll daudan-
um hád, og eiga ad fara í undirheim, eins og
adrir mannanna synir, sem nidurstíguir eru í
grøfina. 15. Svo segir Drottinn alvaldur:
á þeim degi sem hann steig nidur í myrkheim,
lét eg vatnageiminn sýta missir hans, eg breiddi
skýlu yfir hann og apturhéldt straumum hans,
svo ad þau mørgu vøtn hættu ad renna; eg
lét Líbanons fjall íklædast sorgarbúníngi, og

V. 14. a. Sedrustrén, þ. e. þeir voldugustu Konúngar.

öll trén í skóginum lidu í ómegin yfir láti hans.
16. Eg skélfdi þjódirnar med þeim gný, sem
vard af hans falli, þá eg steypti honum nidur
í myrkheim, til þeirra sem eru nidurstignir í
grøfina. Þad vard til fróunar øllum Edens
trjám í undirheimi, þeim útmetnu og føgru trjám
frá Líbanonsfjalli, øllum þeim trjám, sem á
vatni høfdu vøkvast; 17. því þau voru einn-
ig nidurstigin, eins og hann, í myrkheim til
vopnbitinna manna, og til lidveitslu manna
hans, sem í hans skugga høfdu búid medal
þjódanna.

18. Hvørjum ertú þá líkur? Eins og þú
varst ad skrauti og mikilleik talinn med Edens-
trjám, eins skal þér og med Edenstrjám verda
nidursteypt í undirheim; þú skalt liggja medal
hinna óumskornu, hjá vopnbitnum mønnum.
Þannig skal fara fyrir Faraó og øllum hans
mannfjølda, segir Drottinn alvaldur.

## 32. Kapítuli.

Harmasaungur yfir óførum Egyptalands Konúngs,
1—16; líksaungur yfir Faraó, 17—32.

1. Á tólfta árinu, þann fyrsta dag hins
tólfta mánadar, taladi Drottinn til mín svo-
látandi ordum: 2. Þú mannsins son, kyrja þú
upp harmasaung yfir Faraó, Egyptalands Kon-
úngi, og seg til hans: þú varst eins og ljóns-
kálfur medal þjódanna; þú varst eins og krókó-
díll í høfunum, þú brautst áfram í þínum vatns-
straumum, gruggadir upp vatnid med fótum
þínum, og sparkadir sundur vatnsbakkana. 3.
Svo segir Drottinn alvaldur: eg vil leggja
fyrir þig net mitt, og hafa vid mannsøfnud af
mørgum þjódum, sem skulu draga þig upp í
mínu neti; 4. eg vil varpa þér upp á land,
og láta þig liggja þar á bersvædi; sídan vil
eg láta alla fugla himinsins setjast á þig, og
øll villidýr jardarinnar sedja sig af þér; 5.
eg vil dreifa þínu hræi út um fjøllin, og fylla
dalina med þinni rotnun; 6. eg vil vøkva
landid, sem þú sveimar í, med þínu blódi, allt
upp til fjalla, og árfarvegirnir skulu verda full-
ir af þér. 7. Þegar þú útslokknar, vil eg
byrgja himininn, og myrkva hans stjørnur;
eg vil hylja sólina í skýum, og túnglid skal
ekki ná ad lýsa med sínu skini; 8. øll bjørtu
ljósin á himninum vil eg láta myrk verda uppi
yfir þér, og breida dimmu yfir þitt land, seg-
ir Drottinn alvaldur. 9. Eg vil hrella hjørtu
margra þjóda, þegar eg læt fregnina um þín-
ar ófarir berast til þjódanna í þeim løndum,
sem þú þekktir ekki; 10. eg vil gjøra margar
þjódir felmtsfullar út af þér: þeirra Konúng-
ar skulu skélfast yfir þér, þegar eg bregd
mínu sverdi fyrir augu þeim: og þann dag
er þú fellur, skal hvørr þeirra verda hræddur
um líf sitt á hvørju augnabliki. 11. Því svo
segir Drottinn alvaldur: sverd Babels Kon-
úngs skal koma yfir þig; 12. eg skal láta
þitt fjølmenni falla fyrir sverdum ofureflismanna,
sem allir eru hinir mestu offstopar; þeir skulu
bæla nidur ofdramb Egyptalands, og allur þess
fólksfjøldi skal afmádur verda; 13. eg vil eydi-
leggja allar þess skepnur, sem eru á beit hjá
þeim mørgu vøtnum; og einginn mannsfótur
og eingin dýrsklauf skal framar grugga þau;
14. þá vil eg láta þeirra vøtn setjast, og þeirra
strauma fram fljóta sem vidsmjør, segir Drott-
inn alvaldur. 15. Þegar eg hefi gjørt Egypta-
land ad eydimørku, eydt øllu sem er í landinu,
og í hel slegid alla landsins innbúa, þá skulu
menn vidurkénna, ad eg em Drottinn. 16.
Þetta er þad harmakvædi, sem kvedid skal verda;
dætur þjódanna skulu kveda þad, þær skulu kveda
þad yfir Egyptalandi og yfir øllum þess mann-
fjølda, segir Drottinn alvaldur.

17. Á tólfta árinu, þann fimtánda dag hins
sama mánadar, taladi Drottinn til mín svolát-
andi ordum: 18. Þú mannsins son, upphef

sorgargrát yfir Egyptalands mikla mannfjølda, og lát þad ásamt med dætrum hinna voldugu þjóda nidurstíga í undirheim, til þeirra sem nidurfarnir eru í grøfina. 19. Hvørju landi ertu nú ágjætara? far þú nidur, og leggst medal þeirra óumskornu: 20. þeir verda ad falla medal hinna vopnbitnu; landid var ofurselt sverdinu; dragid þad burt, og allan þess mannfjølda! 21. Þeir ágjætustu kappar í myrkheimi, sem nidurstignir eru, hinir óumskornu, sem liggja þar vopnbitnir, skulu tala til Konúngsins og hans lidsmanna: 22. þarna liggur Assýríu Konúngur og allir hans menn, umhverfis í kríngum hann eru grafir manna hans, allir eru þeir í hel slegnir og fyrir sverdi fallnir; 23. honum er fenginn legstadur innst inn í grafhellirnum, og þar umhverfis eru legstadir manna hans, sem allir eru í hel slegnir og fyrir sverdi fallnir, og hafdi ógn af þeim stadid, medan þeir lifdu ofanjardar. 24. Þar liggur Elams Konúngur, og allir hans menn, legstadir þeirra eru allt umhverfis, allir eru þeir í hel slegnir og fyrir sverdi fallnir, og nidurstignir til hinna óumskornu í undirheimi; medan þeir lifdu ofanjardar, stód ógn af þeim, en nú hljóta þeir ad bera sína svívirdíngu med þeim sem í grøfina eru nidurstignir; 25. honum og øllum hans mønnum er legstadur fenginn midt á medal hinna vopnbitnu, og eru legstadir þeirra allt umhverfis hann; allir eru þeir óumskornir og med sverdi í helslegnir; medan þeir lifdu ofanjardar, stód ógn af þeim, en nú hljóta þeir ad bera sína svívirdíngu ásamt med þeim, sem nidurstignir eru í grøfina; medal þeirra vopnbitnu er Elams Konúngi rúm fengid. 26. Þar liggja Meseks og Túbals Konúngar, og allir þeirra menn, og eru legstadir þeirra umhverfis þá; allir eru þeir óumskornir og med sverdi vegnir, því ótti stód af þeim, medan þeir lifdu ofanjardar. 27. Eiga þeir ekki ad liggja í hervopnum sínum og med sverd sín undir høfdum sér hjá þeim føllnu ofureflismønnum, hjá þeim óumskornu, sem nidur eru stignir í myrkheim? þeirra skuld hvílir yfir beinum þeirra, med því ofureflismønnunum stód ótti af þeim, medan þeir lifdu ofanjardar. 28. Einnig þú skalt kremjast medal hinna óumskornu, og liggja hjá þeim vopnbitnu. 29. Þar liggja Edomsmenn og þeirra Konúngar og allir høfdíngjar þeirra, sem voru afburdarmenn ad hreysti, en eru þó nú komnir medal þeirra, sem med sverdi eru vegnir, og liggja hjá þeim óumskornu, sem í grøfina eru nidur farnir. 30. Þar liggja allir høfdíngjar Nordurríkjanna og allir Sídonsmenn, sem eru nidurfarnir til hinna óumskornu, þrátt fyrir þann ótta, sem stód af hreysti þeirra; med kinnroda hljóta þeir sem óumskornir ad liggja hjá þeim sverdbitnu, og bera sína svívirdíng ásamt med þeim, sem ofan eru farnir í grøfina. 31. Þessa skal Faraó sjá, og hugga sig þar vid med øllum sínum mannfjølda; því Faraó og allur hans her er med sverdi í hel sleginn, segir Drottinn alvaldur; 32. því eg lét standa ógn af honum, medan hann lifdi ofanjardar; þess vegna liggur hann nú, Faraó og allur hans mannfjøldi, á medal hinna óumskornu, hjá þeim sem med sverdinu eru í hel slegnir, segir Drottinn alvaldur.

## 33. Kapítuli.

Esekíel talar um sína skyldu, sem spámanns, 1—9; um réttlæti og miskun Guds, 10—20. Fregn um inntøku Jerúsalemsborgar; Esekíel spáir fyrir þeim, sem eptir voru af Júdamønnum, 21—29; talar um þau hádsyrdi, sem sumir gjørdu ad áminníngum spámannanna, 30—33.

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ordum: 2. þú mannsins son! tala þú til landsmanna þinna, og seg þeim: þegar eg læt sverdid koma yfir eitthvørt land, og landsfólkid út-

velur einhvørn mann á medal sín, og gjørir
hann ad vardhaldsmanni; 3. nú sjer hann
sverdid fara yfir landid, og blæs í lúdurinn, og
gjørir fólkid vart vid: 4. sé þá nokkur sá, sem
heyrir lúdurþytinn, en vill þó ekki vara sig,
og kémur svo sverdid og sviptir honum í burtu,
þá er hann sjálfur skuld í dauda sínum. 5.
Af því hann heyrdi lúdurþytinn, en vildi þó
ekki vara sig, þess vegna er hann sjálfur skuld
í dauda sínum; því ef hann hefdi varad sig,
þá hefdi hann fengid lífi sínu borgid. 6. En
sjái vardmadur sverdid koma, og blæs þó ekki í
lúdurinn, svo fólkid fær aungva vísbendíngu,
og kémur svo sverdid og sviptir nokkurum í
burt, þá verdur ad vísu þeim hinum sama burtu
svipt fyrir sjálfs hans skuld, en hans blóds vil
eg krefja af hendi vardmannsins. 7. Þig,
mannsins son, hefi eg sett sem vardmann Ís-
raelsfólks, til þess þú heyrir ordid af mínum
munni, og varir þá vid fyrir mína hønd. 8.
Þegar eg segi til hins ógudlega: þú hinn ó-
gudlegi skalt deya: og þú talar ekki, til þess
ad vara hinn ógudlega vid sínni breytni, þá
skal ad vísu hinn ógudlegi deya fyrir sínna ill-
gjørda sakir, en blód hans vil eg heimta af
þinni hendi. 9. En hafir þú varad hinn ógudlega
vid, ad hann snúi frá sínni breytni, og hann
samt ekki lætur af sínu athæfi, þá skal hinn
ógudlegi deya fyrir sínna synda sakir, en þú
ert þá sýknsaka.

10. Þú mannsins son! seg Ísraelsmønnum:
þér erud vanir ad kveda svo ad ordi: vorar
misgjørdir og syndir liggja á oss, svo vér van-
megnumst undir þeim, hvørsu megum vér þá
lifa? 11. Seg þeim: svo sannarlega sem eg
lifi, segir Drottinn alvaldur, hefi eg aungva
þóknun á dauda hins ógudlega, heldur ad hinn
ógudlegi snúi sér frá sínni breytni, og lifi.
Snúid ydur, snúid ydur frá ydar vondri breytni!
Hví viljid þér deya, Ísraelsmenn? 12. Þú
mannsins son, seg landsmønnum þínum: þeg-
ar rádvandur madur fer og breytir ránglega,
þá skal hann ekki njóta þess, ad hann hefir
rádvandur verid; og þegar sá ógudlegi snýr
frá sínni ógudlegu breytni, þá skal hann ekki
gjalda þess, ad hann hefir ógudlegur verid; en
sá rádvandi skal ekki heldur njóta rádvendni
sínnar, þegar hann syndgar. 13. Þegar eg
segi um þann rádvanda, „hann skal lifa", og
hann í trausti til sínnar rádvendni fer og breyt-
ir ránglega, þá skal øll hans rádvendni ekki ad
álitum gjørast, heldur skal hann deya fyrir þau
rángindi, sem hann gjørdi; 14. og þegar eg
segi til þess ógudlega, „þú skalt deya", og hann
lætur af synd sínni og breytir rétt og rádvand-
lega, 15. svo ad hann, sem ádur var ógudleg-
ur, skilar aptur vedi, bætir rán, og breytir ept-
ir lífsins bodordum, svo ad hann adhefst ekk-
ért þad sem rángt er: þá skal hann lifa og ekki
deya; 16. eingin af hans syndum, sem hann
drýgt hefir, skal ad álitum gjørast: hann breyt-
ir rétt og rádvandlega, og fyrir því skal hann
lifa. 17. Og þó segja landsmenn þínir: veg-
ur hins Alvalda er ekki réttur! þar sem þó
vegur sjálfra þeirra er ekki réttur. 18. Snúi
sá rádvandi sér frá sínni rádvendni og breyti
ránglega, þá skal hann deya þar fyrir; 19.
og snúi hinn ógudlegi sér frá sínu ógudlegu at-
hæfi, og breyti rétt og rádvandlega, þá skal
hann lifa fyrir þad sama. 20. Og þó segid
þér: vegur hins Alvalda er ekki réttur! Sér-
hvørn ydar Ísraelsmanna vil eg dæma eptir
sínni breytni.

21. Á tólfta árinu, þann fimta dag þess tí-
unda mánadar, eptir þad ad vér vorum her-
leiddir, kom flóttamadur nokkurr til mín frá
Jerúsalem med þau tídindi, ad borgin væri
inntekin. 22. Hønd Drottins var yfir mér
um kvøldid, ádur enn flóttamadurinn kom; en
Drottinn upplauk mínum munni, þegar madur-

inn kom til mín um morguninn; þá var minn munnur upplokinn, og eg var ekki lengur orðlaus. 23. Þá taladi Drottinn til mín þessum ordum: 24. þú mannsins son! þeir, sem búa í þeim eydilögdu stödum Israelslands, segja: Abraham var ekki nema einn, og þó fékk hann þetta land til eignar; vér erum margir, landid er géfid oss til eignar. 25. Þar fyrir seg þeim: Svo segir Drottinn alvaldur: þér etid kjötid med blódinu, þér upphefjid ydar augu til skurdgoda og úthellid blódi; egid þér þá ad fá landid til eignar? 26. þér reidid ydur á ydar sverd, fremjid svívirdíngar, smánid hvörr annars eiginkonur; egid þér þá ad fá landid til eignar? 27. þú skalt segja svo til þeirra: Svo segir Drottinn alvaldur: svo sannarlega sem eg lifi! þeir, sem búa í þeim nidurbrotnu rústum, skulu fyrir sverdi falla; þá, sem úti búa á landsbygdinni, skal eg láta verda dýrum ad bráð; og þeir, sem búa í virkjum og hellrum, skulu deya af drepsótt; 28. eg skal gjöra landid ad audn og öræfum, svo þad skal ei lengur treysta mega á veldi sitt; Israelsfjöll skulu svo í eydi liggja, ad þar skal einginn um fara. 29. Þeir skulu þá vidurkénna, ad eg em Drottinn, þegar eg gjöri landid ad audn og öræfum, sökum allra þeirra svívirdínga, sem þeir hafa framid.

30. Þú mannsins son! landsmenn þínir tala um þig hjá veggjunum og húsadyrunum, og segja hvörr vid annan, nábúi vid nábúa: komid, látum oss heyra, hvad Drottinn segir! 31. Þeir koma til þín fjölmennir, sitja frammi fyrir þér, eins og væri þeir mitt fólk, og hlýda á ord þín, en vilja ei eptir þeim breyta; í ordi láta þeir, sem þad sé sitt yndi ad breyta eptir þeim, en hjarta þeirra sækist eptir rángfengnu fé. 32. Sjá! þú ert þeim eins og vel súngid og fallega leikid gamankvædi; þeir hlusta á ord þín, en breyta ekki eptir þeim. En þegar þad kémur fram — og fram skal þad koma — þá skulu þeir vidurkénna, ad spámadur hefir verid medal þeirra.

## 34. Kapítuli.

*Esekíel afmálar yfirmenn Israelsfólks undir hirdara nafni, 1—16; yfirgáng þeirra ríku, 17—22; einka hirdirinn, sá annar Davíd, 23—31.*

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ordum: 2. þú mannsins son! spá þú fyrir Israels hirdurum, spá og seg til þeirra hirdaranna: Svo segir Drottinn alvaldur: vei Israels hirdurum, sem einúngis ala sjálfa sig! Ega ekki hirdararnir ad ala hjördina? 3. Þér etid mörinn, klædid ydur af ullinni, slátrid alifénu, en saudanna viljid þér ekki gjæta. 4. Þér hjúkrid ekki vanfæra fénu, grædid ekki þad sjúka, bindid ekki um þad limlesta, sækid ekki þad sem hrakist hefir, leitid ekki þess týnda, heldur drottnid þér yfir hjördinni med hörku og grimd. 5. Af því saudirnir hafa aungvan hirdir, eru þeir sundurtvístradir, og ordnir öllum skógardýrum ad bráð, og med öllu í sundur dreifdir. 6. Mínir saudir ráfa híngad og þángad um öll fjöll og allar háar hædir, þeir eru á sundrúngi út um allt landid, einginn spyr eptir þeim, einginn leitar þeirra. 7. Þar fyrir heyrid ord Drottins, þér hirdarar! 8. Svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur, af því mínir saudir eru ordnir ad herfángi, og mín hjörd öllum skógardýrunum ad bráð, þared hana vantar hirdir; af því mínir hirdarar ekki skeyta um mína hjörd, heldur ala sjálfa sig, en hirda ekki hjördina: 9. þar fyrir þá heyrid ord Drottins, þér hirdarar! 10. Svo segir Drottinn alvaldur: sjá! eg vil koma til hjardmannanna, og heimta mína hjörd af þeirra hendi; eg vil setja þá af hjardmennskunni; ekki skulu þeir lengur vera hirdarar, sem einúngis ala sjálfa sig: eg vil frelsa mína

saudi undan þeirra tønnum, þeir skulu ekki fram-
ar leggja þá sér til munns. 11. Því svo seg-
ir Drottinn alvaldur: sjálfur vil eg fara og
spyrja eptir hjørd minni og leita hennar. 12.
Eins og einn hirdir leitar vandlega ad hjørd
sinni, þann dag sem hann er ad fé sínu og finn-
ur saudina tvístrada: eins vil eg leita ad min-
um saudum, og heimta þá hvervetna þadan
sem þeir villtust í þokunni og dimmvidrinu;
13. eg vil sækja þá til þjódanna, samansafna
þeim úr løndunum, leida þá inn í þeirra eigid
land, og fæda þá á Ísraelsfjøllum, í dølunum,
og á øllum bygdum bólum í landinu; 14.
eg vil halda þeim í gódu haglendi, og sauda
hús þeirra skal vera hátt uppi á Ísraels-
fjøllum; þar skulu þeir liggja í vænu sauda-
húsi, og gánga í feitu haglendi uppi á Ísraels-
fjøllum. 15. Sjálfur vil eg halda mínum
saudum á beit, og sjálfur bæla þá, segir Drott-
inn alvaldur; 16. eg vil leita þess týnda,
sækja þad hrakta, binda um þad limlesta,
hjúkra því vanfæra; en því offæla og baldna
vil eg lóga: eg skal vera þeim réttlátur hirdir.
17. Og þér, mín hjørd! — svo segir Drott-
inn alvaldur — sjá! eg vil dæma á millum
ásaudar og geitsaudar, hrútanna og hafranna.
18. Nægir ydur þad ekki, ad þér gángid í
því besta haglendi, nema þér líka fóttrodid þad,
sem þér skiljid eptir af grasinu? ad þér drekk-
id þad tæra vatn, nema þér líka stígid ofan í
þad, sem þér leifid, og gruggid þad upp?
19. Eiga þá mínir saudir ad eta þad, sem
þér hafid nidurtrodid med ydar fótum, og
drekka þad, sem þér hafid geingid ofan í og
óhreinkad? 20. Þar fyrir segir Drottinn al-
valdur svo til þeirra: sjá! eg kém, og dæmi
milli hins feita og magra saudfénadar. 21.
Af því þér stjakid vanfæra fénu med bógum
og bægslum, og stángid þad med hornum yd-
ar, þángad til þér loks fáid hrundid því út:
22. þá vil eg hjálpa minni hjørd, svo hún
verdi ekki framar ad herfángi, og eg vil dæma
í millum saudar og saudar.
23. Eg vil uppvekja þeim einn einkahirdir,
sem skal ala þá — minn þjón Davíd, hann
skal fæda þá, hann skal vera þeirra hirdir;
24. Eg Drottinn vil vera þeirra Gud, en
minn þjón Davíd skal vera høfdíngi medal
þeirra; eg Drottinn hefi talad þad. 25. Eg
vil gjøra fridar sáttmála vid þá, og reka øll
illdýri út úr landinu, svo þeir skulu óhultir búa
mega í eydimørkinni og sofa í skógunum. 26.
Eg vil láta þá blessast, og allt þad sem er
umhverfis mína hæd (Síon), og skúrirnar vil eg
láta nidur falla í tækan tíma; þad skulu vera bless-
unar daggir; 27. trén á mørkinni skulu bera
sinn ávøxt, og jørdin sinn gróda. Óhultir skulu
þeir í landinu búa, og þá eg hefi sundurbrot-
id oktré þeirra, og frelsad þá af hendi þeirra,
sem þjádu þá, skulu þeir vidurkénna, ad eg em
Drottinn. 28. Þá skulu þeir ekki framar
verda heidíngjunum ad herfángi, og skógar-
dýrin skulu ekki rífa þá í sig; þeir skulu búa
óhultir, og einginn skal hræda þá. 29. Eg
skal láta þeirra samastad verda nafntogadann;
þeir skulu ekki framar eydast af hallæri í land-
inu, og ekki framar liggja undir ámæli heid-
íngjanna. 30. Þeir skulu vidurkénna, ad eg
Drottinn, þeirra Gud, er med þeim, og ad þeir
eru mitt fólk, nidjar Ísraels, segir Drottinn
alvaldur. 31. Og þér, mín hjørd, sú hjørdin,
sem eg held á beit, þér erud menn a), eg er
ydar Gud, segir Drottinn alvaldur.

## 35. Kapítuli.

Spádómur móti Edomítum.

1. Drottinn taladi til mín svoláandi ord-

V. 31. *a*. Þ. e. munid eptir því, ad þér erud skammsýnir og vanmáttugir menn, og ad þad er Gud einn, sem getur uppfyllt þessi fyrirheit.

um: 2. þú mannsins son, snú þú augliti þínu
gégn Seirsfjalli a), og spá í móti því. 3.
Seg til þess: Svo segir Drottinn alvaldur:
sjá, eg rís upp á móti þér, Seirsfjall, og vil
útrétta mína hønd í móti þér, og gjøra þig
ad audn og øræfum; 4. eg vil gjøra þínar
borgir ad ørbýlum, og þú skalt sjálf verda ad
eydimørku, og vidurkénna, ad eg em Drottinn.
5. Af því þú býr yfir eilífum fjandskap, og
seldir Ísraelsmenn undir sverdseggjar á þeirra
neydartíma, þegar misgjørdir þeirra steyptu
þeim í ógjæfuna: 6. þar fyrir, svo sannar-
lega sem eg lifi, segir Drottinn alvaldur, vil
eg gjøra þig ad blódtjørn, og blódsekt skal of-
sækja þig; af því þú hatadir ekki blódsúthellíngar,
skal blódsektin ofsækja þig. 7. Eg vil gjøra Seirs-
fjall ad audn og øræfum, og láta þar alla umferd
afleggjast; 8. eg vil uppfylla þess fjøll med vegn-
um mønnum, og á þínum hædum, í þínum døl-
um, og vid þína læki skulu sverdbitnir menn
falla; 9. eg vil gjøra þig ad æfinlegri eydi-
mørk, og þínar borgir skulu ei bygdar verda,
og þér skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn.
10. Af því þú segir, „hvørttveggja fólkid og
bædi løndin b) skulu vera mín, vér viljum eign-
ast þau", enn þótt Drottinn sé þar: 11. þar
fyrir, svo sannarlega sem eg lifi, segir Drott-
inn alvaldur, vil eg breyta vid þig, eins og þín
reidi og heipt vinnur til, og eins og þú hefir
breytt haturslega vid þá; þeir skulu vidurkénna
minn mátt, þegar eg refsa þér; 12. og þú
skalt sanna, ad eg Drottinn hefi heyrt øll þau
hádsyrdi, sem þú hefir hreytt í móti Ísraels-
fjøllum, er þú sagdir: þau eru í eydi løgd og
géfin oss til afneytslu. 13. Þér tøludud stór-
yrdi í gégn mér og høfdud ordamælgi vid
mig; og hefi heyrt þad. 14. Svo segir
Drottinn alvaldur: þegar ønnur lønd gledja
sig, vil eg gjøra þig ad eydimørku; 15. eins
og þú gladdist yfir því, ad arfleifd Ísraels-
fólks væri í eydi løgd, eins vil eg gjøra vid
þig: Seirsfjall skal verda ad audn, og allt E-
domsland, einsog þad er sig til, svo ad þeir
skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn.

## 36. Kapítuli.

Fyrirheit Guds um frelsun Gydínga.

1. En þú mannsins son, spá fyrir Ísra-
elsfjøllum, og seg: heyrid ord Drottins, þér
Ísraelsfjøll! 2. Svo segir Drottinn alvald-
ur: af því óvinurinn hlakkar yfir ydur, og seg-
ir: nú eru þær eilífu hædirnar c) ordnar vor
eign: 3. þar fyrir spá þú, og seg: Svo segir Drott-
inn alvaldur: søkum þess þeir vilja eydileggja og
uppsvelgja ydur alla vega, svo þér verdid eign
þeirra eptirordnu heidíngja d), og af því þér erud
komnir í ordrædu manna og ordnir fyrir á-
mæli fólks: 4. þar fyrir heyrid ord Drottins
hins alvalda, þér Ísraelsfjøll: Svo segir Drott-
inn alvaldur til fjallanna og hálsanna, til læk-
janna og dalanna, til þeirra óbygdu eydimarka
og yfirgéfnu borga, sem ordnar eru þeim ept-
irordnu heidíngjum umhverfis ydur ad herfángi
og hædnisefni; 5. þar fyrir, svo segir Drott-
inn alvaldur: sannlega tala eg í minni brenn-
andi vandlætíngu á móti þeim eptirordnu heid-
íngjum, og á móti því gjørvalla Edomslandi,
sem med allshugar føgnudi og ofdrambi hefir
ætlad sér mitt land til eignar, til þess ad gjør-
eyda þad med ránum. 6. Spá þú þessvegna
fyrir Ísraelslandi, og seg til fjallanna, háls-
anna, lækjanna og dalanna: Svo segir Drott-
inn alvaldur, sjá, eg tala í minni vandlætíngu
og í minni heiptarreidi; søkum þess þér verd-
id ad þola hádúngar heidíngjanna, 7. þarfyr-
ir — svo segir Drottinn alvaldur — sver eg
med upplyptri hendi: þeir heidíngjar, sem búa

V. 2. *a.* Edomslandi, Idumeu, 1 Mós. 36. 8—9. V. 10. *b.* Ísraelsríki og Júdaríki. V. 2. *c.* Þ. e. Ísraels land, Gydínganna eilífa eign. V. 3. *d.* Þeirra sem komist høfdu undan eydileggingu Kaldea.

umhverfis ydur, þeir skulu sjálfir bera sína
hádúng: 8. en þér Ísraelsfjøll skulud skjóta
kvistum og bera ydar ávøxt handa mínu fólki
Ísrael; þessi umskipti munu brádum verda,
9. því, sjáid! eg vil koma til ydar, eg vil
snúa mínu augliti til ydar, og þá skulud þér
verda yrkt og sád: 10. eg vil fjølga fólkinu
á ydur, gjørvøllum Ísraels lýd, borgirnar skulu
aptur bygdar verda, og eydibýlin reist ad nýu;
11. eg vil fjølga á ydur fólki og fé: þad skal
margfaldast og æxlast, og eg skal láta ydur
verda fjølbygd, eins og þér vorud í fyrndinni,
og gjøra ydur meira gott, enn ádur fyrr, svo
þér skulud vidurkénna, ad eg em Drottinn.
12. Eg vil láta menn hafa umgaungu um
ydur, þad skal vera mitt fólk, Ísraelsmenn;
þeir skulu eignast þig (Ísraelsland!), og þú
skalt vera þeirra eign; þú skalt ekki framar
gjøra þá barnlausa. 13. Svo segir Drottinn
alvaldur: af því menn segja um ydur: þú farg-
ar mannfólkinu, og gjørir þína þjód barnlausa:
14. þess vegna skalt þú ekki framar mønnum
farga, og ekki framar gjøra þína þjód barn-
lausa, segir Drottinn alvaldur. 15. Eg skal
ekki framar heyrast láta hádsyrdi heidíngjanna
um þig, og þú skalt ekki framar liggja undir
ámæli þjódanna; þú skalt ekki framar gjøra
þína þjód barnlausa, segir Drottinn alvaldur.

16. Drottinn taladi til mín svolátandi ord-
um: 17. þú mannsins son! þegar Ísraelsmenn
bjuggu í sínu landi, saurgudu þeir þad med
sínu athæfi og verkum, svo ad breytni þeirra
vard hin vidurstyggilegasta í mínum augum.
18. Þá útjós eg yfir þá minni heiptarreidi
søkum þess blóds, sem þeir høfdu úthellt í land-
inu, og sakir þeirra skurdgoda, sem þeir høfdu
saurgad landid med; 19. eg tvístradi þeim
medal heidíngjanna, svo ad þeir dreifdust út
um løndin; eptir þeirra verkum og breytni
dæmdi eg þá. 20. Þegar þeir komu medal
heidíngjanna, vanhelgudu þeir mitt heilaga nafn,
hvar sem þeir komu, svo ad um þá var sagt:
þetta er Drottins fólk, sem vard ad fara burt
úr landi hans! 21. og mig tók þad sárt, ad
Ísraels nidjar skyldu svo vanhelga mitt heilaga
nafn medal heidíngjanna, hvar sem þeir komu.
22. Seg þess vegna til Ísraels nidja: Svo
segir Drottinn alvaldur: eg gjøri þad ekki a)
fyrir ydar sakir, Ísraelsmenn, heldur fyrir
sakir míns heilaga nafns, sem þér hafid van-
helgad medal heidíngjanna, hvar sem þér kom-
ud. 23. Eg vil helga mitt hid mikla nafn,
sem vanhelgad er medal heidíngjanna, sem þér
hafid vanhelgad midt á medal þeirra, svo
ad heidíngjarnir skulu vidurkénna, ad eg
em Drottinn — segir Drottinn alvaldur —
þegar eg auglýsi á ydur minn heilagleik í aug-
sýn þeirra. 24. Eg vil sækja ydur til heidinna
þjóda, og samansafna ydur frá øllum løndum,
og leida ydur inn í ydar land. 25. Eg vil
støkkva hreinu vatni á ydur, svo þér skulud verda
hreinir; eg vil hreinsa ydur af øllum ydar ó-
hreinindum og skurdgodum; 26. eg vil géfa ydur
nýtt hjarta, og koma nýum anda í ydar brjóst;
eg vil taka steinhjartad úr brjósti ydar, og géfa
ydur aptur annad af holdi: 27. mínum anda
vil eg koma í ydar hjartans grunn, og til veg-
ar koma, ad þér lifid eptir mínum løgum, gjæt-
id minna bodorda og breytid eptir þeim; 28.
þér skulud búa í því landinu, sem eg gaf ydar
fedrum; þér skulud vera mitt fólk, og eg vil
vera ydar Gud, 29. og frelsa ydur frá øllum
ydar óhreinleika. Eg vil kalla á kornid og
margfalda þad, og ekkért hallæri vil eg láta yf-
ir ydur koma; 30. eg vil margfalda ávøxt
trjánna og jardarinnar gróda, svo ad heidíng-
jarnir skulu ekki framar þurfa ad bregda ydur
um hallæri. 31. Þá munud þér minnast yd-

V. 22, a. Ad audsýna ydur mína miskun.

ar vondu breytni og illu verka; ydur mun
bjóda vid sjálfum ydur sökum ydvarra misgjørda
og vidurstygda. 32. Eg gjøri þetta ekki fyrir
ydar skuld, — segir Drottinn alvaldur, — þad
skulud þér vita! Blygdist og skammist ydar
fyrir ydar breytni, þér Ísraelsmenn! 33. Svo
segir Drottinn alvaldur: á þeim degi er eg
hreinsa ydur af øllum ydar misgjørdum og géf
ydur stadina til íbúdar, þegar þad nidurbrotna
verdur uppbygt, 34. og þad eydilagda land
yrkt, í stad þess ad þad ádur var eins og audn
í augum allra umfarenda: 35. þá mun sagt
verda: þetta land, sem ádur var eins og
eydimørk, er nú ordid sem Edensgardur, og þær
nidurbrotnu, eydiløgdu og umturnudu borgir
eru nú bygdar sem ramgjør virki; 36. og þær
þjódir, sem eptir eru ordnar kríngum ydur, skulu
vidurkénna, ad eg Drottinn hefi uppbyggt þad
sem umturnad var, og gródursett þad sem í eydi
var lagt. Eg Drottinn tala og framkvæmi. 37.
Svo segir Drottinn alvaldur: þá bón skal eg
enn veita Ísraelsmønnum: eg skal fjølga þeim,
svo úr þeim verdi mannhjørd, 38. heiløg hjørd,
eins og sú hjørd, sem fórnfærd er í Jerúsalem
á løghátídum, þannig skulu þær eydiløgdu borg-
ir fyllast af mannhjørdum, og þeir skulu vid-
urkénna, ad eg em Drottinn.

## 37. Kapítuli.

Esekíel fyrirmyndar med upplífgun daudra beina, ad Gydíngar skyldu komast aptur heim í sitt fødurland, 1 — 14; med tveimur keflum, ad Júdaríki og Ísraelsríki skyldu ásídan sameinast, 15 — 28.

1. Hønd Drottins kom yfir mig, og hann
flutti mig burt í anda Drottins, og setti mig í
dal nokkurn, sem fullur var af beinum. 2. Hann
leiddi mig umhverfis þau á alla vegu, og sjá!
þau voru mjøg mørg þar í dalnum, og mjøg
skinin. 3. Hann sagdi til mín: þú mannsins
son! munu þessi bein nokkud géta lifnad vid?
Eg svaradi: alvaldi Drottinn, þú veist þad.
4. Hann sagdi til mín: spá þú yfir þessum
beinum, og seg til þeirra: heyrid ord Drottins,
þér skinin bein! 5. svo segir Drottinn alvald-
ur til þessara beina: eg vil láta lífsanda koma
í ydur, og þér skulud lifna vid; 6. eg vil láta
sinar á ydur, og láta svo hold gróa utan um
ydur, og draga þar hørund yfir, láta svo lífs-
anda í ydur, svo þér skulud lifna, og vidur-
kénna, ad eg em Drottinn. 7. Sídan spádi eg,
eins og mér var bodid; og í því eg spádi, kom
raust; og sjá! þá vard skrudníngur, er beinin
færdust saman og hvørt beinid þokadist ad
ødru. 8. Eg leit til, og sá, ad sinar komu á
beinin, og þar hold á, og hørund þar utan
yfir, en einginn lífsandi var í þeim. 9. Þá
sagdi hann til mín: spádu fyrir lífsandanum,
spá þú, mannsins son, og seg til lífsandans:
Svo segir Drottinn alvaldur: kom, lífsandi,
úr þeim fjórum høfudáttum, og les þig inn í
þessa daudu, svo þeir lifni vid. 10. Eg spádi
nú, eins og mér var bodid; þá kom lífsandinn
í þá, þeir lifnudu vid, og risu á fætur; var
þad stórmikill fjøldi. 11. Hann sagdi þá til
mín: þú mannsins son, þessi bein merkja gjør-
valla Ísraels nidja. Sjá! þeir segja: vor
bein eru skinin, vor von þrotin, þad er út-
gjørt um oss; 12. þar fyrir spá þú og seg til
þeirra: Svo segir Drottinn alvaldur: sjá! eg
vil opna ydar grafir, reisa ydur, mitt fólk,
upp af ydar grøfum, og leida ydur inn í Ís-
raelsland. 13. Þér skulud þá vidurkénna, ad
eg em Drottinn, þegar eg opna ydar grafir, og
reisi ydur, mitt fólk, upp af ydar grøfum.
14. Eg vil láta minn anda í ydur, svo ad þér
skulud lifna, og eg skal koma ydur aptur inn í
ydar land; þá skulud þér vidurkénna, ad eg
Drottinn tala og framkvæmi, segir Drottinn.

15. Enn fremur taladi Drottinn til mín, og
sagdi: 16. þú mannsins son, tak þér kéfli, og rist
þar á: „handa Júdaríki og samlagsmønnum þess

úr Ísraelsríki"; tak sídan annad kéfli, og ríst þar
á:" þetta kéfli er handa Jósep, þad er ad skil-
ja, handa Efraim a) og øllum þeim Ísraels
mønnum, sem eru samlagsbrædur hans"; 17.
legg sídan kéflin saman, hvørt vid annad, svo
þau bædi verdi ad einu kéfli í hendi þinni; 18.
og þegar landsmenn þínir tala til þín, og seg-
ja: lát oss vita, hvad þetta á ad þýda! 19.
þá seg þeim: Svo segir Drottinn alvaldur:
sjá! eg tek Jóseps kéfli, sem verid hefir í hendi
Efraims, og þar med þær ættkvíslir Ísraels,
sem eru samlagsbrædur hans, og legg þær á-
samt honum vid kéfli Júdaríkis, og gjøri þau
ad einu kéfli; þau skulu vera eitt í minni hendi.
20. Þú skalt halda á þeim kéflum, sem þú
hefir ríst letrid á, í hendi þinni, svo þeir sjái
þad, 21. og seg til þeirra: Svo segir Drott-
inn alvaldur: eg vil frelsa Ísraels nidja frá
þeim heidíngjum, sem þeir fóru til, samansafna
þeim úr øllum áttum umhverfis, og leida þá
aptur inn í þeirra eigid land. 22. Eg vil
gjøra þá ad einni þjód í landinu á Ísraels-
fjøllum; einn Konúngur skal vera yfir þeim
øllum, þeir skulu ekki framar vera tvær þjódir
og ekki framar skiptast í tvø Konúngsríki. 23.
Þá skulu þeir ekki framar saurga sig med
sínum skurdgodum og svívirdíngum, eda med
nokkurum misgjørdum; eg vil frelsa þá frá
øllum þeim bústødum, hvar þeir hafa syndgast,
og hreinsa þá; þeir skulu vera mitt fólk, og eg
vil vera þeirra Gud; 24. minn þjón Davíd
skal vera Konúngur yfir þeim, og einka hirdir
allra þeirra; þeir skulu lifa eptir mínum bod-
ordum, gjæta laga minna og breyta eptir þeim.
25. Þeir skulu búa í því landinu, sem eg gaf
mínum þjóni Jakob, hvar fedur þeirra bjuggu;
í því landi skulu þeir búa, og þeirra børn og
barnabørn, æfinlega; og minn þjón Davíd
skal vera þeirra høfdíngi eilíflega. 26. Eg
vil gjøra vid þá fridarsáttmála, þad skal vera
eilífur sáttmáli vid þá; eg skal láta þá búa
ad stadaldri í landinu, og fjølga þeim, og láta
minn helgidóm vera hjá þeim eilíflega; 27.
minn bústadur skal vera á medal þeirra, eg vil
vera þeirra Gud, og þeir skulu vera mitt fólk.
28. Þá skulu heidíngjarnir vidurkénna, ad eg
Drottinn gjøri Ísraelsmenn heilaga, þegar
minn helgidómur er á medal þeirra eilíflega.

## 38. Kapítuli.

*Utlendar þjódir, kalladar Magog, áttu einhvorntíma ad brjótast inn í Ísraelsland med óvígan her undir herstjórn Gogs, 1—17; eydileggíng þeirra, 18—23.*

1. Drottinn taladi til mín svolátandi ord-
um: 2. þú mannsins son, snú þér í móti Gog
í Magogslandi, þeim ædsta høfdíngja yfir Me-
seks og Túbalsmønnum, og spá í móti honum,
3. og seg: Svo segir Drottinn alvaldur: sjá,
eg rís í móti þér, Gog, þú ædsti høfdíngi Me-
seks og Túbalsmanna; 4. eg skal stýra þér, legg-
ja bitil í munn þér, og leida þig út med øllu
þínu herlidi, hestum og riddurum, øllum med
alvepni, miklum mannfjølda, med skjøldu og
buklara, og skulu allir hafa sverd í høndum
sér; 5. í før med þeim eru Persar, Blálend-
íngar og Mórlendíngar, allir med búklurum
og hjálmum; 6. Simmeríar og allir þeirra
herskarar, Armeníar frá þeim nyrdstu løndum
og allir herflokkar þeirra; margar þjódir hef-
ir þú í før med þér. 7. Bú þig út, og haf
þig til taks, þú og allur þinn mannfjøldi, sem
þú hefir ad þér dregid, og vert høfudsmadur
þeirra! 8. Þú skalt vera foríngi lidsins í
lánga tíma, en á sídustu árunum skaltu fara
inn í þad landid, sem frelsad er undan sverd-
inu, hvørs innbúar eru samansafnadir frá
mørgum þjódum, til Ísraelsfjalla, sem lengi
høfdu í eydi legid, hvørs innbúar eru útleidd-

V. 16. *a.* Efraimsætt var adalættkvísl Ísraelsríkis, því þadan var Konúngsættin. 1 Kóng. 11, 26.

ir frá þjódunum og búa þar allir í fridi. 9. Þú skalt brjótast fram, og koma eins og stormbylur; þú og allir þínir herflokkar, og mannfjøldinn, sem med þér er, skal hylja landid eins og skýmokkur. 10. Svo segir Drottinn alvaldur: á þeim degi munu hugsanir upp renna í þínu hjarta, og þú munt hafa illa fyrirætlan med høndum; 11. þú munt segja: eg vil brjótast inn í þetta land, sem liggur opid og øndverdt fyrir mér, vada þar upp á landsmenn, sem búa í fridi óhultir, án þess nokkurr þeirra hafi múrveggi, slagbranda eda borgarhlid; 12. svo þú megir fara þar med rán og rifs, og leggja aptur hendur á nýuppbygda eydistadi, og á þá þjód, sem samansøfnud er úr ymsum løndum, og hefir nú aflad sér búfjár og eigna, og býr á hálendinu. 13. Seba og Dedan, verdslunarmenn Tarsísborgar og víkíngar a) þeirra munu segja til þín: ertu kominn til ad ræna? hefir þú dregid saman lidsafla þinn til ad afla herfángs, raka saman gulli og silfri, flytja burt búfé og gripi, og fremja mikinn herskap? 14. Þar fyrir spá þú, mannsins son, og seg vid Gog: Svo segir Drottinn alvaldur: 15. þú vilt vita, hvønær mitt fólk, Ísraelsmenn, uggir ekki ad sér; þá ætlardu ad koma frá stødvum þínum, frá þeim nyrdstu landsálfum, þú og margar þjódir med þér, allar rídandi á hestum, mikill herskari og fjølmennur lidstyrkur; 16. þá ætlardu ad vada upp á mitt fólk, Ísraelsmenn, og hylja landid sem skýmokkur. Þetta mun verda á sídustu døgunum; þá vil eg leida þig inn í mitt land, til þess ad heidíngjarnir læri ad þekkja mig, þegar eg auglýsi minn heilagleik á þér, Gog, í augsýn þeirra. 17. Svo segir Drottinn alvaldur: ertú ekki sá, um hvørn eg hefi talad í fornøld fyrir munn þjóna minna, Ísraels spámanna, sem á þeim døgum spádu um þau ár, þá eg mundi leida þig móti þeim?

18. Á þeim degi er Gog fer móti Ísraelslandi, þá skal — segir Drottinn alvaldur — mín heiptarreidi upptendrast; 19. í minni vandlætíngu, í minni brennandi reidi tala eg: sannarlega skal á þeim degi verda stór skelfíng í Ísraelslandi: 20. fyrir mínu augliti skulu skjálfa fiskar sjáfarins, fuglar himinsins, dýr skógarins, øll skridkvikindi jardar, og allir menn, sem á jardríki búa; fjøllin skulu kollvarpast, brattir hamrar hrynja, og hvørr múrveggur til jardar falla. 21. Eg vil kalla til vopna móti honum á øllum mínum fjøllum, segir Drottinn alvaldur, svo hvørt sverdid skal reka sig á annad; 22. eg vil halda dóm yfir honum med drepsótt og blódsúthellíngu: steypihrídum, haglsteinum, eldi og brennusteini vil eg rigna láta yfir hann og herflokka hans og yfir þann mikla mannfjølda, sem med honum er. 23. Eg vil auglýsa mig dýrdlegan og heilagan, og gjøra mig alkunnan í augsýn margra heidíngja, svo ad þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn.

## 39. Kapítuli.

Framhald um eydileggíng Gogs, 1—24; vardveitsla Guds fólks, 25—29.

1. Þú, mannsins son! spá þú í móti Gog, og seg: Svo segir Drottinn alvaldur: sjá, eg rís í móti þér, Gog, þú ædsti høfdíngi yfir Meseks og Túbalsmønnum; 2. eg skal snúa þér í krók og kríng, og fara med þig hvørt á land sem eg vil: eg skal fara med þig frá þeim nyrdstu landsálfum, og flytja þig upp á Ísraelsfjøll; 3. þá skal eg slá boga þinn úr þinni vinstri hendi, og láta þínar ørvar detta úr hinni hægri. 4. Á Ísraelsfjøllum skaltu falla, þú og allir þínir herskarar, og þær þjódir, sem eru í før med þér; eg hefi ætlad þig til brádar handa ránsfuglum, øllum flugdýrum

V. 13. a. Eda úngir kappar og herdrengir; á hebr. ljónskálfar.

og skógardýrum; 5. á vída vángi skaltu falla, því eg hefi talad þad, segir Drottinn alvaldur. 6. Eg vil steypa eldi yfir Magog, og yfir þá, sem ugglausir búa í fjarlægum strandbygdum, svo þeir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn. 7. Eg vil gjøra mitt heilaga nafn kunnugt á medal míns fólks, Israelsmanna, og ekki framar láta vanhelga mitt heilaga nafn, og heidíngjarnir skulu vidurkénna, ad eg em Drottinn, sá heilagi í Israel. 8. Sjá, þad kémur fram, þad er þegar fram komid, segir Drottinn alvaldur; þad er sá dagur, sem eg hefi talad um. 9. Þeir sem búa í Israels borgum, skulu út gánga og eld kynda, og brenna upp hervopnin, búklarana, skjølduna, bogana, ørvarnar, pálstafina, lensurnar; í sjø ár skulu þeir elda þessu; 10. þeir skulu ekki þurfa ad sækja vid í mørkina eda høggva tré í skógunum, því þeir skulu hafa vopnin fyrir eldivid; þeir skulu fletta þá, sem þá flettu, og ræna þá, sem þá rændu, segir Drottinn alvaldur. 11. Á þeim degi vil eg veita Gog legstad samastadar í Israelslandi, dal þann, sem leid liggur um fyrir austan hafid, og skulu þeir, sem þar fara um, verda ad byrgja fyrir vit sín; og þar skal Gog verda grafinn og allur hans mannfjøldi, og skal sá dalur kallast Gogsmúga dalur. 12. Israelsmenn skulu vera ad í sjø mánudi, ad jarda þá, ádur þeir fái hreinsad landid; 13. allt landsfólkid skal starfa ad þeim grepti, og sá dagur, er eg auglýsi mína dýrd, skal verda þeim til frægdar, segir Drottinn alvaldur. 14. Vissir menn skulu verda tilteknir, sem fara skulu um landid, og þeir skulu, med tilhjálp þeirra sem um veginn fara, grafa þá, sem eptir hafa ordid ofanjardar, til þess ad hreinsa landid. Ad lidnum sjø mánudum skulu menn taka til ad ransaka landid; 15. fari þá ferdamenn um landid, og sjái einhvørr þeirra mannsbein, þá skal hann hlada þar vørdu hjá, svo ad graptrarmennirnir géti sídan jardad þau í Gogsmúga dal; 16. þar skal og borg nokkur nefnast Múgaborg. Þannig skulu þeir hreinsa landid. 17. Þú mannsins son, svo segir Drottinn alvaldur: seg til fuglanna, allra flugdýra og allra skógardýra: safnid ydur saman og komid, safnist ad úr øllum áttum til minnar sláturveitslu, sem eg held ydur, til hinnar miklu sláturveitslunnar á Israelsfjøllum; etid kjøt, og drekkid blód! 18. Kjøt hinna voldugu skulud þér eta, og drekka blód jardarinnar høfdíngja, blód hrútanna, lambanna, hafranna, uxanna, sem allt er alid á Basans heidum. 19. Í þeirri sláturveitslu, sem eg held ydur, skulud þér eta mørinn, uns þér verdid saddir, og drekka blódid, uns þér verdid drukknir; 20. þér skulud sedjast vid mitt bord af hestum og riddurum, af stóreflismønnum og allskonar hermønnum, segir Drottinn alvaldur. 21. Þannig vil eg kunngjøra mína dýrd medal heidíngjanna, og allar þjódir skulu sjá þann dóm, sem eg framkvæmi, og mína hønd, sem eg legg á þá. 22. Upp frá þeim degi og framvegis skulu Israelsmenn vidurkénna, ad eg em Drottinn, þeirra Gud. 23. Heidíngjarnir skulu verda ad játa, ad Israelsmenn hlutu ad fara úr landi einúngis vegna misgjørda sinna; søkum þess þeir høfdu misbrotid móti mér, byrgdi eg mitt auglit fyrir þeim, og seldi þá í hendur óvina sinna, svo þeir féllu allir fyrir sverdseggjum. 24. Eg breytti vid þá, eins og þeirra ótérlegi lifnadur og syndsamlega athæfi hafdi til unnid, og byrgdi mitt auglit fyrir þeim.

25. Þar fyrir segir Drottinn alvaldur svo: nú vil eg aptur heim leida þá herleiddu Jakobs nidja, og miskuna mig yfir alla Israelsmenn og vandlæta um mitt heilaga nafn. 26. Þegar þeir búa óhultir í sínu landi, án þess nokkurr hrædi þá, þá skulu þeir finna til sinnar svívirdíngar, og til allra þeirra misgjørda, sem

þeir hafa drýgt á móti mér. 27. Þegar eg leiddi þá heim aptur frá þjódunum, og safna þeim saman úr løndum óvina sinna, þá skal eg verda helgadur medal þeirra í augsýn margra heidingja. 28. Þeir skulu þá vidurkénna, ad eg var Drottinn, þeirra Gud, bædi þegar eg herleiddi þá medal heidíngjanna, og eins þegar eg samansafnadi þeim aptur í þeirra land, án þess ad láta þar nokkurn þeirra eptir verda. 29. Eg vil ekki framar byrgja mína ásjónu fyrir þeim, eptir þad ad eg hefi úthelt mínum anda a) yfir Ísraelsmenn, segir Drottinn alvaldur.

## 40. Kapítuli.

Afmálun þess nýa musteris í hinni nýu Jerúsalems borg; sá ysti múrveggur, 1—16; ytri forgardurinn, 17—27; innri forgardurinn, 28—47; musterid sjálft, 48—49.

1. Á því 25ta ári eptir þad ad vér vorum herleiddir, øndverdlega ársins, þann tíunda dag hins fyrsta mánadar — þad var á fjórtánda ári eptir þad ad borgin var inntekin — einmidt þann sama dag kom hønd Drottins yfir mig, og hann flutti mig þángad. 2. Í gudlegri sýn flutti hann mig til Ísraelslands, og setti mig nidur á mjøg hátt fjall, og var þar sem uppbygd borg væri sunnanverdt á fjallinu. 3. Þá hann hafdi flutt mig þángad, þá birtist madur nokkur, ásýndar sem ljómandi eirmálmur; hann héldt á línstreng og mælistaung, og stód í hlidinu. 4. Madurinn sagdi til mín: Þú mannsins son! lít á med þínum augum, hlýd á med þínum eyrum, og legg á hjarta allt þad er eg sýni þér; því þú ert þess vegna híngad fluttur, ad eg skuli sýna þér þetta; þú skalt kunngjøra Ísraelsmønnum allt þad sem þú sjer. 5. Og sjá! þar gékk múrveggur allt umhverfis utan um húsid b); madurinn héldt á mælistaunginni, hún var 6 álna laung, og var hvør alin þverhønd lengri enn almenn alin; hann mældi þykt múrsins, og var hún ein mælistaung, og hæd hans ein mælistaung. 6. Hann gékk nú ad því portinu, sem til austurs vissi, og þar upp eptir ridinu, og mældi annan þrøskuld portsins, og var hann ein mælistaung á breidd, og sídan hinn þrøskuldinn, sem og var einnar mælistángar breidur. 7. Hvørt herbergi var ein mælistaung á leingd, og ein mælistaung á breidd, og milli herbergjanna 5 álna rúm, og þrøskuldur portsins hjá stólpagánginum, fyrir innan portid, ein mælistaung. 8. Hann mældi stólpagáng portsins ad innanverdu, eina mælistaung; 9. hann mældi og stólpagáng portsins (ad utanverdu), voru þad 8 álnir, því útbrotid á portinu var tveggja álna. En hvad vidvíkur þeim innra stólpagángi portsins, 10. þá voru í því portinu, sem til austurs vissi, þrjú herbergi annars vegar, og þrjú hins vegar, øll þrjú jøfn ad máli; súlurnar beggja vegna voru og jafnar ad máli. 11. Hann mældi dyravídd portsins, 10 álnir, en lengd portsins var 13 álnir. 12. Fyrir framan herbergin var álnar þrep annars vegar, og álnar þrep hins vegar; en hvørt herbergi var 6 álna á einn veginn, og 6 álna á hinn veginn. 13. Hann mældi breidd portsins milli herbergja ræfranna, 25 álnir; dyrnar stódust á beggja vegna. 14. Súlna rødin mældist honum á lengd 60 álna; ad medtøldu því bili í portinu, sem var milli súlnanna allt umhverfis. 15. Frá dyraportinu til súlna hins innra ports voru 50 álnir. 16. Spalagluggar lágu ad herbergjunum og herbergjasúlunum inn í portinu allt umhverfis, og sømuleidis ad útbrotunum; ad innanverdu voru gluggar allt umhverfis; á súlunum var hleypt upp pálmvidar laufverki.

17. Nú leiddi hann mig til ytra forgardsins; þar voru herbergi, og steinlagt gólf í

V. 29. *a.* Sjá Kap. 36, 27. V. 5. *b.* Musterid.

forgarðinum allt um kríng, og 30 herbergi á gólfinu. 18. Gólfið lá fram með hlið portanna, en lángs með portunum var það lægra. 19. Hann mældi breiddina frá neðra portinu allt til þess ytra veggjar hins innra forgarðs, 100 álna, til austurs og norðurs. 20. Síðan mældi hann lengd og breidd hins nyrðra ports allt til hins ytra forgarðs; 21. þar voru þrjú herbergi annars vegar, og þrjú hins vegar, þess súlur og súlnaraðir voru jafnar að máli við fyrsta portið, það var á lengd 50 álna, og á breidd 25; 22. þess gluggar, súlnaraðir og pálmaviðar laufverk voru jöfn að máli, eins og í austurportinu; var gengið upp að því um 7 palla, og þar súlnaröð fyrir framan. 23. Port innra forgarðsins stóðust á við það nyrðra og eystra port; hann mældi 100 álna frá einu portinu til annars. 24. Nú leiddi hann mig suður eptir, og þar sást port, sem vissi til suðurs; hann mældi þess súlur og súlnaraðir, og voru þær jafnar að máli við hinar. 25. Á þessu porti og útbrotum þess voru gluggar allt umhverfis, eins og hinir gluggarnir voru; lengd þess var 50 álna, og breiddin 25 álna; 26. upp að því var gengið um 7 palla, og þar fyrir framan var súlnaröð með pálmaviðar laufverki, ein annars vegar, og önnur hins vegar. 27. Á innra forgarðinum var og port, sem vissi til suðurs; hann mældi frá einu portinu til annars 100 álna mót suðri.

28. Hann leiddi mig í gégnum suðurportið inn í innra forgarðinn, og mældi nú suðurportið, það var jafnt að máli hinum fyrri; 29. þess herbergi, súlur og súlnaraðir voru jafnar að máli hinum fyrri; á þessu porti og útbrotum þess voru gluggar allt í kríng, það var á lengd 50 álna, og á breidd 25 álna; 30. þar voru súlnaraðir allt í kríng, 25 álna á lengd, og 5 álna á breidd; 31. súlnaröð portsins náði allt til ytra forgarðsins, og á súlunum var pálmaviðar laufverk; upp af portinu var gengið um 7 palla. 32. Hann leiddi mig að austurhlið þess innra forgarðs, og mældi portið, var það að máli jafnt hinum; 33. þess herbergi, súlur og súlnaraðir voru jafnar að máli hinum fyrri; á því og útbrotum þess voru gluggar umhverfis, það var 50 álna á lengd, og 25 álna á breidd; 34. súlnaröð þess náði allt til ytra forgarðsins, og á súlunum beggja vegna var pálmaviðar laufverk; þar voru 8 pallar upp að gánga. 35. Hann leiddi mig nú að norðurportinu, og mældi það; það var jafnt að máli og hin, 36. sömuleiðis þess herbergi, súlur og súlnaraðir; þar voru gluggar á allt um kríng, var portið 50 álna lángt, og 25 álna breidt; 37. súlnaröð þess náði til ytra forgarðsins, og var pálmaviðar laufverk á súlunum beggja vegna, voru þar 8 pallar upp að gánga. 38. Milli portsúlnanna voru dyr að herbergi nokkuru, hvar brennifórnin var þvegin; 39. og í stólpagángi portsins stóðu tvø borð annars vegar, og tvø borð hins vegar, til þess að slátra þar á brennifórnum, syndafórnum og sektafórnum. 40. Þar að auki stóðu tvø borð við hlið portsins að utanverðu, þar sem upp var gengið að norðurports dyrunum, og ønnur tvø hinumegin við portsúlna røðina, 41. það voru fjøgur borð øðrumegin, og fjøgur borð hinumegin portsins, alls 8 borð, sem fórnum var slátrað á. 42. En voru fjøgur borð til brennifórnar af høggnum steinum, hálfrar annarar álnar laung, hálfrar annarar álnar breið, og álnar há; þar á voru løgð þau verkfæri, sem høfð voru, þá brennifórnum eða øðrum fórnum var slátrað; 43. þar allt í kríng umhverfis voru básar, og gjørt yfir með einlægu þaki, en á borðin var fórnakjøtið lagt. 44. Fyrir utan innra portið í innra forgarðinum voru herbergi handa saungmønnunum, sum við

hlid nordurportsins og snéru mót sudri, ønnur vid hlid austurportsins og bløstu vid nordri. 45. Hann sagdi til mín: þau herbergin, sem snúa mót sudri, eru ætlud þeim kénnimønnum, sem þjóna musterinu; 46. en þau herbergi, sem vita til nordurs, eru þeim kénnimønnum ætlud, sem þjóna altarinu: þessir eru Sadoks nidjar a), sem eru þeir einu af Leví-ættkvísl, er nálægja síg Drottni til ad þjóna honum. 47. Hann mældi nú forgardinn, hann var 100 álna lángur, og 100 álna breidur, réttur ferhyrníngur; altarid stód fyrir framan musterid.

48. Hann leiddi mig nú ad stólpagángi musterisins, og mældi stólpagánginn, 5 álnir annars vegar, og 5 álnir hins vegar, og vídd portsins, þrjár álnir ødrumegin, og þrjár álnir hinumegin; 49. lengd stólpagángsins var 20 álnir, breiddin 11; þar voru pallar upp ad gánga; vid útbrotin stódu súlur, ein annars vegar, og ønnur hins vegar.

## 41. Kapituli.

Inngángur til helgidómsins, 1—4; hans veggir og herbergi, 5—21; altarid og musterisdyrnar, 22—26.

1. Hann leiddi mig nú til helgidómsins, og mældi súlurnar; breiddin var 6 álna annars vegar og 6 álna hins vegar, eptir breidd tjaldsins; 2. dyrnar voru 10 álna breidar, og kamparnir annars vegar 5 álna og hins vegar 5 álna; hann mældi lengd helgidómsins, 40 álna, og breiddina 20 álna. 3. Sídan gékk hann inn fyrir, og mældi dyrustafinn, hann var tvær álnir, dyrnar 6 álna, og dyra breiddin 7 álna. 4. Sídan mældi hann 20 álnir á lengdina og 20 álnir á breiddina, fyrir framan helgidóminn, og sagdi til mín: þetta er þad allrahelgasta.

5. Hann mældi vegg musterisins, 6 álna á þykt; og fjøgra álna breidan hlidvegs gáng, sem lá umhverfis allt í kríng um musterid. 6. Herbergin voru 33, og hvørt herbergi áfast vid annad; þau lágu upp ad múrvegg nokkurum, sem var allt í kríng í musterinu handa þessum herbergjum, svo ad þau voru áføst sin í milli, án þess þau væru áføst vid musteris vegginn. 7. Þessi herbergi, sem lágu umhverfis, urdu æ breidari, eptir því sem ofar kom; því ofan til átti umgángur ad vera umhverfis í kríng í musterinu; þessvegna voru húsin breidari ofan til, og mátti gánga úr nedsta stafgólfi upp á midloptid, og þadan upp á efsta lopt. 8. Eg sá, ad þessi bygging hafdi samsvarandi hæd allt um kríng; frá grundvelli herbergjanna var heill mælikvardi, sex álnir, undir bita. 9. Breidd herbergja veggjarins út á brún var 5 álnir, og eins lángt var sundid milli herbergja byggíngarinnar og musterishússins; 10. en milli herbergjanna, allt umhverfis í kríng um húsid, var 20 álna bil. 11. Dyrnar ad herbergjunum snéru út ad húsasundinu, þær voru tvær, adrar mót nordri, og adrar mót sudri, en breidd húsasundsins var 5 álna allt umhverfis. 12. Sú frambyggíng, sem stód fyrir framan húsaþorpid, var ad vestanverdu 70 álna á breidd, og veggur frambyggíngarinnar alla vega 5 álna þykkur og 90 álna lángur. 13. Hann mældi lengd musterisbyggíngarinnar 100 álna, húsaþorpid og frambyggínguna med hennar veggjum á lengd 100 álna. 14. Framhlidin á musterinu og húsaþorpinu ad austanverdu var 100 álna. 15. Hann mældi lengd frambyggíngarinnar, sem stód fyrir framan húsaþorpid, sem var á baka til, og gángrúm hennar beggja vegna, þad var 100 álnir, ad medtøldum þeim innra helgidómi og forgardssúlnarødunum; 16. hann mældi og þrøskuldana, spalagluggana, og þau þreføldu gángrúm. Vid þrøskuldana var allt þiljad umhverfis med þunnum

V. 46. a. 1 Kóng. 2, 35.

bordvidi. Hann mældi bilid frá jørdunni og
upp ad gluggunum; fyrir gluggunum voru
spalagrindur. 17. Uppi yfir dyrunum, bædi
fyrir innan og utan musterishúsid, og á vegg=
junum umhverfis ad innanverdu og utanverdu,
var eptir vissu máli 18. hleypt upp Kerúbum
og pálmavidar laufverki, var einn pálmakvistur
látinn vera milli hvørra tveggja Kerúba; hvørr
Kerúb hafdi tvø andlit, 19. mannsandlit snéri
ad pálmakvistinum annars vegar, en ljónsand=
lit ad pálmakvistinum hins vegar; þeim var
hleypt upp allstadar umhverfis á húsinu. 20.
Nedan frá gólfi og efst upp á dyr voru út=
skornir Kerúbar og pálmakvistir, og eins á
helgidóms veggjunum. 21. Hvørr dyrastafur
í helgidóminum var ferstrendur, og framhlidin
á því allrahelgasta var øllu deili eins á ad sjá.

22. Altarid var af tré, þad var þriggja
álna hátt og tveggja álna lángt; þess hyrn=
íngar og endilángir hlidvegirnir voru af tré;
og hann sagdi til mín: þetta er þad bord, sem
stendur frammi fyrir Drottni. 23. Tvær voru
hurdir á helgidóminum og því allrahelgasta,
24. í hvørri hurd voru tveir hlerar, sem bádir
voru lagdir saman á misvíxl; tveir hlerar
voru í annari hurdinni, og eins tveir hlerar í
hinni hurdinni. 25. Á þessum hlerum, sem
voru hurdir fyrir helgidóminum, var hleypt
upp Kerúbum og pálmakvistum, eins og
gjørt hafdi verid á veggjunum, og því var
bordvidurinn látinn vera þykkri þeim megin sem
snéri út ad stólpagánginum. 26. Gluggarnir
voru med spalagrindum, og þar beggja vegna
útskornir pálmakvistir med hlidveginum á stólpa=
gánginum, og allteins á herbergja hlidunum og
timburstokkunum.

## 42. Kapítuli.

*Um hlidarbyggínguna hjá forgørdunum, 1—14; um mælíng þess ytsta múrveggjar, 15—20.*

1. Hann leiddi mig nú út til hins ytra
forgards, þann veg sem liggur mót nordri, og
fór med mig ad þeim herbergjum, sem lágu
gégnt húsaþorpinu, og beint nordur frá fram=
byggíngunni. 2. Herbergjastædid var 100
álna lángt, frá nordurportinu ad telja, og 50
álna breidt; 3. þar af lágu 20 álnir gégnt
innra forgardinum, og eins margar gégnt stein=
gólfinu í ytra forgardinum, hitt voru þrísettar
stólparadir, hvør andspænis móti annari. 4.
Fyrir framan herbergin var gángrúm, 10 álna
breidt, og álnarbreidur stígur inn í húsin;
herbergja dyrnar snéru til nordurs. 5. Efstu
herbergin voru lægri en midherbergin og nedstu
herbergin, því stólparnir nádu ekki til þeirra;
6. því þau voru þríloptud, en høfdu aungvar
slíkar stodir, sem voru í forgørdunum, voru
þess vegna þraungbygdari enn nedstu herbergin
og midherbergin, sem risu frá grundvelli. 7.
Utanverdt med endilaungum herbergjunum gékk
múrveggur móts vid ytra forgardinn, upp ad
honum lágu herbergin; hann var 50 álna
lángur; 8. því lengd herbergjanna móts vid
ytra forgardinn var 50 álna, þar sem fram=
hlidin á helgidóminum var 100 álna. 9. Frá
austri var inngángur nedan ad þessum herberg=
jum, þegar menn vildu gánga inn í þau frá
ytra forgardinum. 10. Sømuleidis voru her=
bergi med endilaungum forgardsmúrnum ad
austanverdu, fyrir framan húsaþorpid og fram=
byggínguna; 11. fyrir framan þau var gáng=
rúm, øllu deili eins og vid herbergin á nordur=
hlidinni; þau voru jafnlaung og jafnbreid;
allir útgángar þeirra, allt skipulag og dyrum=
búníngur var eins og á hinum. 12. Eins
voru dyrnar ad þeim herbergjum, sem vissu
til sudurs; þar voru dyr á, þar sem gáng=
rúmid byrjadi, þad gángrúm, sem lá fram med
þeim beina múr, er snéri mót austri, hvar inn
var gengid. 13. Hann sagdi til mín: nord=
ur herbergin og sudur herbergin, sem liggja fyrir

framan húsaþorpið, þau eru heiløg herbergi, í hvørjum þeir kennimenn, sem nálægja sig Drottni, skulu neyta hinna helgustu fórna; þar skulu þeir láta þær helgustu fórnir, matarfórnina, syndafórnina og sektafórnina, því þetta er heilagur stadur. 14. Þegar kennimennirnir eru gengnir þángað inn, þá skulu þeir ekki útfara af helgidóminum í hinn ytra forgarð, fyrr enn þeir hafa þar lagt klædi sín af sér, í hvørjum þeir embætta, því þau eru heiløg, og fært sig aptur í ønnur klædi, og gángi svo þángað sem fólkið er.

15. Þá hann hafdi mælt allt musterið að innanverdu, leiddi hann mig út að austurportinu, og mældi musterið allt í kríng. 16. Hann mældi austurhlidina med mælikvardanum, 500 mælistengur, eptir mælikvardanum; 17. hann mældi nordurhlidina á kvardann, 500 mælistengur; 18. hann mældi sudurhlidina á kvardann, 500 mælistengur; 19. sídan snéri hann sér að vesturhlidinni, og mældi med kvardanum 500 mælistengur. 20. Þannig mældi hann múrvegg musterisins allt um kríng á fjórum hlidum, 500 mælistengur á lengdina og 500 á breiddina, til að skilja það heilaga frá því óheilaga.

## 43. Kapítuli.

Drottinn velur sér bústað í því nýa musteri, 1—5; helgi musterisins, 6—12; um brennifórnar altarið, 13—27.

1. Þessu næst leiddi hann mig að portinu, því porti, sem vissi til austurs. 2. Og sjá! dýrd Ísraels Guds kom frá austri; hans raust var sem nidur margra vatnsfalla, og jørdin vard uppljómud af hans dýrd. 3. Sú sjón, sem eg sá, var eins og sú sjón, er eg sá, þá eg kom til að boda eydileggíngu borgarinnar, og eins og sú sjón, sem eg sá vid ána Kabor. Eg féll þá nidur á mína ásjónu. 4. Dýrdin Drottins fór nú inn í musterið, inn um það portið, sem vissi til austurs. 5. Þá hóf andinn mig upp, og flutti mig inn í innra forgarðinn; og sjá! musterið var fullt af dýrd Drottins.

6. Þá heyrda eg einhvørn tala til mín úr musterinu, og madur nokkur stód hjá mér, 7. og sagdi til mín: þú mannsins son! þetta er stadur míns hásætis, þetta er skør minna fóta; hér vil eg búa medal Ísraelsmanna að eilífu. Ísraelsmenn skulu ekki framar saurga mitt heilaga nafn, hvørki þeir né Konúngar þeirra, med sínum saurlifnadi og med líkum sinna Konúnga, sem hér hafa heygdir verið; 8. med því þeir settu sína prøskuldu hjá mínum þreskildi, og sína dyrustafi hjá mínum dyrustaf, svo ekki var nema veggur milli mín og þeirra, og flekkudu mitt heilaga nafn med sínum svívirdíngum, sem þeir frømdu; hvørs vegna eg fyrirkom þeim í minni reidi. 9. En nú skulu þeir burtkasta sínum saurlifnadi og líkum sinna Konúnga lángt í frá mér, og þá vil eg búa medal þeirra að eilífu. 10. Þú mannsins son! sýn Ísraelsmønnum þetta musteri, svo þeir skammist sín fyrir sínar misgjørdir, og taki rétt mál af byggíngarlaginu. 11. Og ef þeir skammast sín fyrir allt það, sem þeir hafa drýgt, þá skaltu sýna þeim musterisins løgun og skipulag, útgángana þaðan og inngángana til þess, hvørsu øllu er fyrir komið, allt tilskipað og nidursett og fyrirmyndað, og afmála þetta fyrir augum þeirra, svo þeir athugi alla hússins setníng og tilskipan, og hagi sér þar eptir. 12. Þetta er løgmál musterisins: efst á fjallstindinum og í øllu þess takmarki allt umhverfis er það allrahelgasta; þetta er løgmál musterisins.

13. Þetta er mælíng altarisins að álnatali, eptir þeirri alin, sem er alin og ein þverhønd: altaris þróin er álnar há og álnar breid, og røndin á þróarbarminum spannar breid; þetta er stétt altarisins. 14. Frá þrónni á jørdunni upp að nedra stallinum skal vera tveggja álna hátt og álnar breidt, og frá minna stallinum

til meira stallsins, fjøgra álna hátt og álnar breidt; 15. eldstædid fjøgra álna hátt, og upp af eldstædinu fjøgur horn; 16. eldstædid 12 álna lángt og 12 álna breidt, ferhyrníngur á alla fjóra vegu; 17. efri stallurinn, 14 álna lángur og 14 álna breidur, á fjóra vegu, og røndin umhverfis hann, hálfrar álnar breid; stéttin þar til, álnar há allt um kríng; pallarnir upp ad altarinu snúa mót austri. 18. Því næst sagdi hann til mín: þú mannsins son! Svo segir Drottinn alvaldur: Þetta eru þær tilskipanir, sem altarinu vidvíkja: þann dag er þad er albúid, svo þar á verdi fórnad brennifórn, og støkkt fórna blódi, 19. skaltu fá úngan uxa til syndafórnar þeim kénnimønnum af Leví-kynkvísl, ættmønnum Sadoks, sem nálægja sig mér, segir Drottinn alvaldur, til ad þjóna mér. 20. Þú skalt taka nokkud af blódi uxans, og rída því á fjøgur horn altarisins og á fjórar hyrníngar efra stallsins og røndina þar í kríng, og þannig hreinsa þad af synd og fridþægja fyrir þad, 21. sídan skaltu taka syndafórnar uxann, og brenna hann á tilskipudum stad í musterinu, úti fyrir helgidóminum. 22. Annars dags skaltu færa gallalausan kjarnhafur í syndafórn, svo altarid þar med verdi hreinsad af synd, eins og þad var hreinsad med uxanum. 23. Þegar þú hefir aflokid hreinsaninni, skaltu leida fram úngan uxa gallalausan, og hrút af hjørdinni gallalausan; 24. þú skalt leida þá fram fyrir Drottinn, og skulu kénnimennirnir dreifa salti á þá, og fórnfæra þá Drottni í brennifórn. 25. Sjø daga samfleytt skaltu daglega fórnfæra einum kjarnhafri í syndafórn, og þar ad auki skal fórnfæra úngum uxa og hrút af hjørdinni, bádum gallalausum. 26. Sjø daga skulu menn þiggja altarid í frid og hreinsa þad, og koma fram med fullar hendur fórna. 27. Ad lidnum þessum døgum, þá skulu kénnimennirnir á áttunda deginum og þadan í frá fórnfæra ydar brennifórnum og þakkarfórnum á altarinu, og þá vil eg hafa velþóknun á ydur, segir Drottinn alvaldur.

## 44. Kapítuli.

*Um helgi austurportsins, 1—3; um inngaungu í musterid, 4—9; víti ótrúrra Levíta, 10—16; embættisskyldur kénnimannanna, 17—31.*

1. Hann leiddi mig nú til baka ad ytra helgidómsportinu, sem til austurs vissi, og var þad læst. 2. Og Drottinn sagdi til mín: þetta port skal vera læst og ekki upplúkast, og þar skal einginn madur inn gánga, því Drottinn, Gud Ísraels, hefir inn um þad gengid; því skal þad læst vera. 3. Þó má landshøfdínginn, af því hann er landshøfdíngi, sitja þar inni, til ad eta fórnarmáltíd frammi fyrir Drottni; hann skal gánga inn um stólpagáng portsins, og fara út aptur sama veg.

4. Því næst leiddi hann mig ad nordur portinu fyrir framan musteris húsid; eg sá þá, og sjá! dýrdin Drottins uppfyllti Drottins hús, og eg féll fram á mína ásjónu. 5. Þá sagdi Drottinn til mín: þú mannsins son! legg þér á hjarta, sjá med augum þínum, og hlýd med eyrum þínum á allt þad, sem eg segi þér um alla setnínga Drottins húss, og um allar þess tilskipanir, og gjæt vandlega ad inngaungunni í musteris húsid, og øllum útgaungum úr helgidóminum. 6. Seg til þeirra þverúdarfullu, til Ísraelsmanna: Svo segir Drottinn alvaldur: þér Ísraelsmenn! látid ydur nægja allar þær svívirdíngar, sem þér hafid framid; 7. ad þér hafid innleidt útlenda menn, óumskorna á hjarta og holdi, til þess ad vera í mínum helgidómi, til þess ad vanhelga mitt hús, medan þér fórnfærdud því, sem mér var ætlad til fórnar, feitinni og blódinu; ad þér hafid rofid minn sáttmála med øllum ydar

svívirdíngum; 8. ad þér ekki hafid haldid til-
skipanir míns helgidóms, heldur sett adra eptir
eigin gédþekkni, til ad gjæta þess, sem eg vil
gjæta láta í mínum helgidómi. 9. Svo segir
Drottinn alvaldur: einginn útlendur madur,
óumskorinn á hjarta og holdi, má inn í
minn helgidóm koma, einginn af þeim útlend-
íngum, sem búa medal Ísraelsmanna.

10. En þeir Levítar, sem fjarlægdu sig frá
mér þegar Ísraelsmenn fóru villir vega, og
fylgdu sínum afgudum, þeir skulu gjøld taka
fyrir misgjørd sína; 11. þeir skulu vera þjón-
ar í mínum helgidómi, halda vørd vid musteris-
hlidin og hafa annan starfa í húsinu, þeir skulu
slátra brennifórninni, og ødrum fórnum fyrir
fólkid, og standa frammi fyrir því, til ad þjóna
því. 12. Af því þeir þjónudu fólkinu frammi
fyrir afgudum þess, og urdu Ísraelsmønnum
ad fótakefli til hrøsunar: þess vegna sver eg
þeim med upplyptri hendi, segir Drottinn al-
valdur, ad þeir skulu taka gjøld fyrir misgjørd
sína. 13. Þeir skulu ekki nálægja sig mér,
til ad vera mínir kénnimenn, ekki nálægja sig
nokkurum mínum helgidómi, og síst því allra-
helgasta, heldur skulu þeir bera sína vanvirdu,
og taka gjøld fyrir þær svívirdíngar, sem þeir
frømdu; 14. eg vil gjøra þá ad húsvørdum
í musterinu, og hafa þá þar til allskonar
vinnu, og til alls þess, sem þar er ad starfa.
15. En kénnimenn af Levíætt, þeir Sadoks
nidjar, sem hafa haldid skipanir míns helgi-
dóms, þegar Ísraelsmenn viltust frá mér, þeir
skulu koma til mín til ad þjóna mér, þeir
skulu standa frammi fyrir mér til ad færa mér
þad feita og blódid, segir Drottinn alvaldur;
16. þeir skulu gánga inn í minn helgidóm,
þeir skulu nálægja sig mínu bordi til ad þjóna
mér, þeir skulu gjæta þess sem eg vil gjæta láta.

17. Þegar þeir gánga inn um port hins
innra forgards, skulu þeir íklædast línklædum;
ekkért ullarklædi skulu þeir á sér bera, medan
þeir embætta fyrir innan port hins innra for-
gards eda inni í musterinu. 18. Þeir
skulu hafa línmotra um høfud sér, og línbræk-
ur um lendar sínar, en gyrdi sig ekki svo fast,
ad þeim verdi erfidt. 19. En þegar þeir
gánga út í ytra forgardinn, þar sem fólkid er,
þá skulu þeir fara af þeim klædum, sem þeir
embættudu í, og leggja þau í hin heiløgu her-
bergi, og fara í ønnur klædi, ad þeir ekki helgi
fólkid a) í klædum sínum. 20. Þeir skulu ekki
raka høfud sín, ekki heldur láta hárid vaxa
sídt, heldur láta kríngskéra þad. 21. Einginn
kénnimadur má vín drekka, þegar hann gengur
inn í hinn innra forgard. 22. Einga ekkju,
né þá konu, sem vid mann er skilin, mega þeir
taka sér til eiginkonu, heldur skulu þeir kvong-
ast einhvørri mey af ætt Ísraelsmanna, eda
þá einhvørri ekkju eptir kénnimann nokkurn.
23. Þeir skulu kénna mínu fólki ad gjøra
greinarmun á því sem er heilagt og óheilagt,
hreint og óhreint. 24. Þegar eitthvørt mál-
efni kémur fyrir þá, skulu þeir vera reidubún-
ir ad úrskurda þad; dæma skulu þeir eptir mín-
um løgum; þeir skulu gjæta minna laga og
tilskipana á øllum mínum hátídum, og halda
helga mína hvíldardaga. 25. Ekki má kénni-
madur koma ad dauds manns líki til ad saurga
sig, nema sé lík fødur eda módur, sonar eda
dóttur, bródur eda systur, sem ekki hefir giptst,
á því megu þeir saurga sig; 26. telja skal
honum sjø daga frá því ad hann er hreinsadur,
27. og þann dag er hann gengur inn í helgi-
dóminn í þeim innra forgardi, til ad embætta
í helgidóminum, skal hann frambera sína synda-
fórn, segir Drottinn alvaldur. 28. Arfleifd

V. 19. *a.* Þ. e. ad þeir ekki gángi út medal fólksins í hátídabúningi sínum, og glepji þad í þess hvørsdags-
legu sýslunum.

skulu þeir hafa: eg vil sjálfur vera þeirra arfleifd; ekki þurfid þér ad ætla þeim neina fasteign í Ísraelslandi: eg vil sjálfur vera þeirra fasteign. 29. Þeir skulu hafa sitt uppheldi af matarfórnum, syndafórnum og sektafórnum; allt sem Drottni er helgad í Ísraelslandi, skal tilheyra þeim; 30. þad besta af øllum frumgróda hvørs kyns sem er, allar upplyptíngarfórnir, hvørs kyns sem eru og hvørju sem upplypt er, skal tilheyra kénnimønnunum; þad sem fyrst er bakad af ydar deigi skulud þér géfa kénnimanninum, svo ad blessunin hvíli yfir þínu húsi. 31. Kénnimenn megu ekkért sjálfdaudt eta, eda þad sem sundurrifid er af fuglum eda dýrum.

## 45. Kapítuli.

*Landshlutir helgidómsins, kénnimannanna, Levítanna, borgarinnar og landshøfdíngjans, 1—8; um réttlæti landstjórnendanna, 9—12; um tolla til landshøfdíngjans, og um hátídafórnir, 13—25.*

1. Þegar þér skiptid landinu med hlutføllum til arfleifdar, skulud þér skilja nokkurn hluta lands frá, sem Drottni skal helgadur vera; þad skal vera 25000 mælisköpt á lengd, og 10000 á breidd. Þetta land skal heilagt véra innan sinna takmarka í allar áttir. 2. Þar af skal helgidóminum tilheyra ferskeyttur fløtur, 500 mælisköpt á hvørn veg; og umhverfis kríngum þann fløt skal vera audt svid 50 álna. 3. Ut frá þessum mælda reit skaltu mæla 25000 mælisköpt á lengdina og 10000 á breiddina, þar skal helgidómurinn, sá heilagasti stadur, vera. 4. Þetta er sá heilagi hluti landsins, sem kénnimønnunum skal tilheyra, þeim er embætta í helgidóminum og nálægja sig Drottni til ad þjóna honum; þar skulu vera húsastædi þeirra, og þetta skal vera helgidómsstadur kríngum helgidóminn. 5. 25000 mælisköpt á lengd og 10000 á breidd skal tilheyra, þeim Levítum, sem þjóna í musterinu, og vera eign þeirra, ásamt med 20 herbergjum. 6. Borginni skulu þér géfa til eignar 5000 mælisköpt á breidd, og 25000 á lengd, næst þeim reitnum, sem helgidóminum er ætladur; þetta skal tilheyra øllum Ísraelsmønnum. 7. Landshøfdíngjanum skulud þér géfa landshluta beggja vegna vid helgidómsreitinn og borgarreitinn, til móts vid þá hvørutveggju, til vesturs, í haf ad sjá, og til austurs, sem fram horfir; sá hluti skal vera jafnlángur hvørjum arfahluta ættkvíslanna frá því vestlæga takmarki til hins austlæga. 8. Þetta skal hann til eignar hafa af landinu í Ísrael, svo ad mínir høfdíngjar ekki framar veiti ágáng mínu fólki, heldur láti Ísraelsmenn halda landinu eptir þeirra ættkvíslum.

9. Svo segir Drottinn alvaldur: látid ydur nægja þetta, þér Ísraels høfdíngar! látid af ofríki og yfirgángi, breytid eptir løgum og réttvísi, látid af ad reka fólk mitt af eignum sínum, segir Drottinn alvaldur. 10. Þér skulud hafa réttar vogir, rétt Effa a) og rétt Bat; 11. Effa og Bat skal vera jafnt ad máli, Bat skal draga tíunda part Gómers, og eins Effa tíunda part Gómers; eptir Gómer skal hvørttveggja mælast; 12. Sikill skal vera 20 Gera; ein Mína hjá ydur skal vera til 25 sikla, 20 sikla og 15 sikla.

13. Þetta er sú upplyptíngarfórn, sem þér skulud géfa: af einum Gómer hveitis, sjøttúng af Effa; af einum Gómer byggs, sjøttúng af Effa. 14. Þetta er tilskipad um vidsmjørid: af einu Bat vidsmjørs skal géfa tíunda part Bats, eda eitt Bat af einum Kór, sem dregur 10 Bat, eins og Gómer; því í einum Gómer eru 10 Bat. 15. Einn saud skal géfa af hvørjum tveim hundrudum sauda, af hjørdum þeim, sem gánga í þeim vatnsríku grashøgum Ísraelslands; þad skal vera til matarfórnar, brennifórnar og þakkarfórnar, til ad fridþægja fyrir fólkinu, segir Drottinn alvaldur. 16. Allt fólk-

V. 10. *a.* Effa var þurramælir, Bat, lagamælir.

id í landinu skal vera skyldt til ad færa þessa upplyptíngarfórn landshøfdíngjanum í Israelslandi. 17. Landshøfdínginn skal vera skyldur til ad útvega brennifórnir, matarfórnir og dreypifórnir á hátídum, túnglkomum og hvíldardøgum, og á øllum løghátídum Israelsmanna; hann skal útvega syndafórnir, matarfórnir, brennifórnir og þakkarfórnir til ad fridþægja fyrir Israelsfólki. 18. Svo segir Drottinn alvaldur: á fyrsta degi hins fyrsta mánadar skaltu taka úngan uxa gallalausan, og fridhelga helgidóminn. 19. Kénnimadurinn skal taka nokkud af blódi syndafórnarinnar, og rída því á dyrustafi musterishússins, á fjórar hyrníngar altarisstallsins, og á dyrustafi portsins ad innra forgardinum. 20. Eins skaltu gjøra hinn sjøunda dag mánadarins vegna þeirra, sem ófyrirsynju eda af einfeldni kynnu ad hafa misgjørt eitthvad; þannig skulud þér fridhelga musterid. 21. Á fjórtánda degi hins fyrsta mánadar skulud þér halda páska, sú hátíd skal vara í 7 daga, og þá skal ósýrt braud eta. 22. Á þeim sama degi skal landshøfdínginn fórna fyrir sig og allt fólkid í landinu einum uxa í syndafórn; 23. og á þeim 7 hátídisdøgum skal hann færa Drottni brennifórn, sjø uxa og sjø hrúta gallalausa, daglega í þá 7 daga, og enn skal hann á degi hvørjum fórna kjarnhafri í syndafórn. 24. Í matarfórn skal hann fórna einu Effa med hvørjum uxa, og einu Effa med hvørjum hrút, en ein Hin vidsmjørs heyrir til hvørs Effa. 25. Á 15da degi hins sjøunda mánadar skal hann á hátídinni a) fórna sømu syndafórn, brennifórn, matarfórn og vidsmjøri, sem á hinum 7 døgunum.

## 46. Kapítuli.

Um fórnir, 1—15; Konúngsjardir, 16—18; matgjørdarhúsid, 19—24.

1. Svo segir Drottinn alvaldur: eystra portid ad innra forgardinum skal vera læst þá sex daga, sem virkir eru, en á hvíldardøgum og túnglkomu hátídum skal þad vera opid. 2. Landshøfdínginn skal gánga inn um stólpagánginn hjá ytra portinu, og nema stadar vid dyrastafi portsins; kénnimennirnir skulu fórnfæra hans brennifórn og þakkarfórn, en hann skal falla fram til bænar á þreskildi portsins, og gánga sídan út aptur. Portinu skal ekki loka til kvølds. 3. Fólkid í landinu skal falla fram fyrir augliti Drottins vid þessar sømu portdyr, á hvíldardøgum og túnglkomuhátídum. 4. Sú brennifórn, sem landshøfdínginn skal færa Drottni á hvíldardegi, er sex saudir gallalausir, og einn hrútur gallalaus; 5. hrútnum skal fylgja eitt Effa í matarfórn, en saudunum skal í matarfórn fylgja slíkt sem hann sjálfur vill láta af hendi rakna, Hín vidsmjørs skal fylgja hvørju Effa. 6. Á túnglkomudøgum skal hann fórnfæra úngum uxa gallalausum, sex saudum og einum hrút, þeir skulu og vera gallalausir; 7. uxanum skal hann láta fylgja eitt Effa, og hrútnum eitt Effa, í matarfórn, en saudunum slíkt sem hann má af hendi láta, og Hín vidsmjørs med hvørju Effa. 8. Þegar landshøfdínginn vill inngánga, skal hann gánga í gégnum stólpagáng portsins, og fara sama veg út aptur. 9. En þegar landsfólkid gengur fram fyrir Drottinn á løghátídum, þá skal sá, sem inn hefir gengid um nordurportid, til ad bidjast fyrir, aptur út gánga um sudurportid, og sá sem inn gengur um sudurportid, aptur út fara um nordurportid; einginn skal aptur út fara um þad sama port, sem hann hefir inn gengid, heldur skal hvørr út gánga beinleidis. 10. Þegar landsfólkid gengur inn, skal landshøfdíngi gánga med því, og aptur út gánga, þegar þad gengur út. 11. Á helgum og løghátídum skal hann fórna í matarfórn einu Effa med hvørjum uxa,

V. 25. a. Þ. e. laufskála hátídinni.

og einu Effa med hvørjum hrút, en saudunum skal fylgja slíkt sem hann lætur af hendi rakna, og Hín vidsmjørs med hvørju Effa. 12. Þegar landshøfdíngi ad sjálfs síns vilja færir Drottni brennifórn eda þakkarfórn, þá skal upp lúka fyrir honum því porti, sem til austurs veit, og skal hann fórna sínni brennifórn og þakkarfórn, eins og hann er vanur á hvíldardøgum, og þegar hann fer út, skal læsa portinu eptir honum. 13. Daglega skaltu fórnfæra árs gømlu lambi gallalausu til brennifórnar fyrir Drottni; því skaltu fórnfæra á hvørjum morgni. 14. Þessu skaltu hvørn morgun fylgja láta sjøttúng eins Effa mjøls, í matarfórn, og þridjúng Hínar af vidsmjøri til ad væta med mjølid; þetta er matarfórn Drottins, og skal sá sidur stødugt haldast um aldur og æfi. 15. Hvørn morgun skal fórnfæra lambinu, matarfórninni og vidsmjørinu, og skal sú brennifórn æfinlega haldast.

16. Svo segir Drottinn alvaldur: ef landshøfdíngi géfur einhvørjum sona sínna nokkud af sínum arfahluta ad gjøf, þá skulu synir hans halda þeirri gjøf sem eign med erfdarétti. 17. En géfi hann einhvørjum þjónustumanna sínna nokkud af arfahluta sínum ad gjøf, þá skal sá halda því til fagnadarársins, en þá skal þad aptur hverfa til landshøfdíngjans, því einginn má eignast arfahluta hans, nema synir hans, þeim skal hann tilheyra. 18. Ekkért má landshøfdíngi taka af arfleifd fólksins, til ad þraungva nokkurum manni frá eign sínni; sjálfs síns eign má hann láta í erfd gánga til sona sínna, en aungvan af mínu fólki má burtflæma af eignarjørdu sínni.

19. Því næst leiddi hann mig gégnum gánginn vid hlidina á portinu, til herbergja helgidómsins, sem vissu til nordurs og kénnimønnunum tilheyrdu; og sjá! þar var rúm nokkurt á baka til mót vestri. 20. Og hann sagdi til mín: þetta er sá stadur, hvar kénnimennirnir skulu sjóda sektafórnina og syndafórnina, og baka matarfórnina, svo þeir ekki þurfi ad bera þad út um ytra forgardinn, því þar vid mundi fólkid helgast a). 21. Nú leiddi hann mig út í ytra forgardinn, og lét mig gánga í þær fjórar hyrníngar, sem á forgardinum voru; og sjá! í hvørri af þeim fjórum hyrníngum var karmur nokkur. 22. Í þessum kørmum, sem voru í þeim fjórum hyrníngum forgardsins, voru skorsteinar; hvørr karmur var 40 álna lángur og 30 álna breidur, og allir fjórir hornkarmarnir voru jafnir ad máli; 23. í kríng um hvørn af þeim fjórum gékk hríngmúr umhverfis, og eldstór gjørdar nedan til vid múrana umhverfis. 24. Þá sagdi hann til mín: þetta er þad matgjørdarhús, í hvørju þjónustumenn musterisins sjóda fórnir fólksins.

V. 20. a. Sjá 44, 19.

# 47. Kapítuli.

*Um vatnsuppsprettu þess nýa musteris, 1—12; takmørk hins heilaga lands, 13—20; um arftøku útlendra manna, 21—23.*

1. Nú leiddi hann mig aptur ad musterisdyrunum; og sjá! vatn nokkurt spratt upp undan þreskildi hússins mót austri, því framhlid musterisins vissi til austurs; þetta vatn féll í jørd nidur hægramegin musterisins fyrir sunnan altarid. 2. Hann leiddi mig nú út af nordurportinu, og umkríng ad utanverdu til ytra portsins, sem horfir mót austri; þar til hægri handar vall vatnid upp aptur. 3. Madurinn gékk nú austur med vatninu, hann hafdi mælistreng í hendi sér, og mældi 1000 álnir, og lét mig þá gánga yfir um vatnid, og tók þad mér í økla. 4. En mældi hann 1000 álnir, og lét mig þar gánga yfir um, tók vatn-

íð mér þá til knés; þá mældi hann enn 1000 álnir, og lét mig fara yfir um, tók vatnið mér þar upp á mjaðmir. 5. Þá mældi hann enn 1000 álnir, var þá vatnið orðið að fljóti, svo eg mátti ei yfir það komast; þar var hyldýpi, eins og sundá eða óvædt fljót. 6. Hann sagði þá til mín: hefir þú séð þetta, þú mannsins son? leiddi hann mig þá aptur upp á fljótsbakkann. 7. Á leiðinni til baka sá eg mjög mörg tré á fljótsbökkunum beggja vegna. 8. Hann sagði til mín: þetta vatn rennur út á austurlandið, og þaðan ofan á sléttlendið, og fellur svo í hafið a), og þegar það er runnið í hafið, verður sjáfarvatnið heilnæmt. 9. Allar lifandi skepnur, sem hræra sig, fá nýtt líf, allstaðar þar sem þessir vatnsstraumar koma, og fiskarnir verða mjög margir; því þar sem þessi vötn koma fram, verður sjáfarlögurinn heilnæmur, og allt lifnar við, þar sem vatnsstraumurinn kémur. 10. Fiskimennirnir skulu standa við hafið frá En-Geddí og allt til En-Eglajim, og vera þar að breiða net sín; þar skulu finnast ýmislegar fiskategundir, og fiskifjöldinn skal vera stórmikill, eins og í hafinu mikla b); 11. en pyttirnir og síkin þar hjá skulu ekki hafa heilnæmt vatn, heldur eru þeir ætlaðir til saltfengjar. 12. Með fram fljótinu á vatnsbökkunum beggja vegna skulu upp renna allskonar frjófsamleg aldintré, þeirra laufblöð skulu ekki visna, þeirra ávöxtur ekki dvína, hvörn mánuð skulu þau bera nýjan ávöxt, því vötnin, sem þau lifa við, koma frá helgidóminum; þeirra ávöxtur skal gagna til fæðslu og laufblöðin til lækníngа.

13. Svo segir Drottinn alvaldur: þetta eru þau takmörk, eptir hvörjum þér skuluð skipta landinu til eignar á meðal Ísraels 12 ættkvísla. Jósepsætt skal hafa tvo hluti. 14. Þér skuluð taka landið í arf, jafnt hvörr með öðrum; eg hét með uppréttri hendi að gefa það feðrum yðar, og því skal þetta land falla í yðar arf. 15. Þetta eru takmörk landsins: að norðanverðu, frá hafinu mikla, sem leið liggur til Ketlons, þaðan til Sedads, 16. Hamats, Berótu, Sibraims, sem liggur á landamerkjunum milli Dammaskusborgar og Hamats, og þaðan til Hazer-Tíkóns, sem liggur við Havranslаnd; 17. landamerkin skulu þá liggja frá hafinu til Hazar-Enons, og nyrðsta takmark skal vera Dammaskusborg og Hamat. Þetta eru takmörkin að norðanverðu. 18. Að austanverðu skuluð þér mæla takmörkin milli Havrans, Dammaskusborgar, Gileads, gégnum Ísraelsland til Jórdanar, og allt til Austursjóarins c). Þetta eru landamerkin að austanverðu. 19. Suðurtakmarkið liggur frá Tamar til deiluvatnsins Kades, móts við dalinn og allt til hafsins mikla. Þetta eru landamerkin að sunnanverðu. 20. Vesturtakmarkið er Mikla haf og þaðan þvert yfir frá, sem leið liggur til Hamats; þetta eru landamerkin að vestanverðu.

21. Þessu landi skulu þér skipta meðal yðar, í milli ættkvísla Ísraelsmanna. 22. En þér skuluð skipta því með hlutföllum yður til eignar og þeim útlendum mönnum, sem búa meðal yðar og börn hafa átt hjá yður; þér skuluð álíta þá sem innfædda Ísraelsmenn, þeir skulu gánga til arfs með yður, jafnt og aðrar kynkvíslir Ísraelsmanna; 23. þér skuluð géfa hvörjum útlendum manni arfahluta í þeirri ættkvísl, sem hann býr í sem útlendíngur, segir Drottinn alvaldur.

## 48. Kapítuli.

Landshlutir hinna 7 kynkvísla í norðurhluta Gyðíngalands, 1—7; hlutur helgidómsins, borgarinnar og landshöfðíngjans, 8—22; arfahlutir hinna 5 kynkvísla í suðurhluta landsins, 23—29; borgarhliðin og nafn borgarinnar, 30—35.

1. Þessi eru nöfn kynkvíslanna: á norður-

V. 8. *a* Dauðahaf. V. 10. *b.* Miðjarðarhafinu. V. 18. *c.* Dauðahafs.

landamerkjunum hjá Ketlon, þar sem leid liggur til Hamats og Hazar-Enons, og á nordurtakmørkum Dammaskusborgar framm med Hamat, frá austri til vesturs, þar er einn arfahluti, sem Dans ættkvísl á. 2. Á takmørkum Dans ættkvíslar, frá austri til vesturs, þar er einn hluti, Asers ættkvísl á þann. 3. Vid takmørk Asers ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn hluti, þann á Naftalí ættkvísl. 4. Vid takmørk Naftalí ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn hluti, Manassis ættkvísl á hann. 5. Vid takmørk Manassis ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn arfahluti, Efraims ættkvísl á þann. 6. Vid takmørk Efraims ættkvíslar, frá austri til vesturs, þar er einn hluti, Rúbens ættkvísl á hann. 7. Vid takmørk Rúbens ættkvíslar, frá vestri til austurs, er einn hluti, þad er arfur Júda ættkvíslar.

8. Vid takmørk Júda ættkvíslar frá austri til vesturs, skal liggja sá hluti lands, sem þér skulud helga, þad eru 25000 mæliskøpt á breidd, og á lengd frá austri til vesturs eins og hvørr hinna arfahlutanna; í midjum þessum hluta skal helgidómurinn vera. 9. Sá hluti lands, sem þér skulud helga Drottni, skal vera 25000 mæliskøpt á lengd, og 10000 á breidd. 10. Þessari fráskildu hlutdeild helgidómsins skal þannig skipta: kénnimønnunum skulu tilheyra 25000 mæliskøpt til nordurs, til vesturs 10000 á breiddina, eins til austurs á breidd 10000, til sudurs 25000 á lengdina; og þar í midjunni skal Drottins helgidómur vera. 11. Þetta skal helgad vera kénnimønnunum, þeim af Sadoks nidjum, sem gjæta þess er eg vil gjæta láta, og sem ekki fóru afvega med ødrum afvegaleiddum Israelsmønnum, þegar Levítarnir fóru villir vega; 12. þeirra einka hlutdeild skal því vera þad allrahelgasta af því helgada landi, til móts vid takmørk Levítanna. 13. Levítarnir skulu hafa land til móts vid takmørk kénnimannanna, 25000 mæliskøpt á lengdina og 10000 á breiddina; øll lengdin er nefnilega 25000, breiddin 10000 mæliskøpt. 14. Ekkért mega þeir þar af selja, og eingin umskipti á hafa, og ekki má landsins veglegasti hluti gánga til annara eigenda, því hann er Drottni helgadur. 15. Þær 5 þúsundir mæliskapta á breiddina og 25 þúsundir á lengdina, sem enn eru eptir, þær skulu vera óhelgad land, til húsastæda og almenníngs fyrir borgina; í midjum þessum reit skal borgin standa. 16. Þetta skal vera vøxtur borgarinnar: nordur hlidvegurinn 4500 mæliskøpt, sudurhlidvegurinn 4500, eystri hlidin 4500, og vestari hlidin 4500 mæliskøpt. 17. Almenníngur sá, er borginni tilheyrir, skal vera 250 mæliskøpt ad nordanverdu, 250 ad sunnanverdu, 250 ad austanverdu, og 250 ad vestanverdu. 18. Þad sem enn er eptir af lengdinni næst vid einka hlutdeild helgidómsins, 10000 mæliskøpt gégnt austri og 10000 gégnt vestri, hvad ed liggja skal næst einkalandi helgidómsins, afdektir þess skulu vera til uppheldis þjónustmønnum borgarinnar; 19. en þjónustumenn borgarinnar, þeir ed þetta land taka til yrkíngar, megu vera af øllum ættkvíslum Israelsmanna. 20. Alla einkadeildina, 25000 mæliskøpt á lengdina og 25000 á breiddina, sem er réttur ferhyrníngur, hana skulud þér veita helgidóminum og borginni til eignar. 21. En þad sem enn er eptir beggja vegna, fyrir utan einkadeild helgidómsins og eign borgarinnar, þad skal heyra landshøfdíngjanum til; þad sem liggur til móts vid þau 25000 mæliskøpt af því úrskipta landi til þeirra austlægu landamerkja, og med hafstrøndinni til móts vid þau 25000 mæliskøpt allt til hinna vestlægu landamerkja, gagnvart landshlutum ættkvíslanna, þad skal heyra landshøfdíngjanum til, og skal einkadeild helgidómsins og þad heilaga

musteris-hús liggja þar midt innan í. 22. Sømuleidis skal þad, sem liggur milli takmarka Júda ættkvíslar og Benjamíns ættkvíslar, frá eign Levítanna og borgareigninni, sem liggur midt innan í landshøfdíngjans hlutdeild, heyra landshøfdíngjanum til.

23. Hvad hinum ættkvíslunum vidvíkur, þá er einn hluti lands frá austurátt til vesturáttar, þad á Benjamíns ættkvísl. 24. Vid takmørk Benjamíns ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn hluti, hann á Símeons ættkvísl. 25. Vid takmørk Símeons ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn hluti, þad er Ísaskars ættkvísl. 26. Vid takmørk Ísaskars ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn hluti, Sebúlons ættkvísl á þann. 27. Vid takmørk Sebúlons ættkvíslar, frá austri til vesturs, er einn hluti, þann á Gads ættkvísl. 28. Vid takmørk Gads ættkvíslar víkur landamerkinu til suduráttar frá Tamar til deiluvatnsins Kades, móts vid dalinn og allt til Mikla hafs. 29. Þetta er þad land, sem þér skulud úthluta ættkvíslum Ísraelsmanna til arfleifdar, og þessir eru arfahlutar þeirra, segir Drottinn alvaldur.

30. Þessi eru porthlid borgarinnar: nordur hlidvegurinn er ad máli 4500 mælisköpt, 31. en porthlid borgarinnar heita eptir nøfnum Ísraels kynkvísla: þrjú porthlid nordanmegin, Rúbens port eitt, annad Júda port, þridja Leví port. 32. Austanmegin eru 4500 mælisköpt, og þrjú porthlid, eitt Jóseps port, annad Benjamíns port, þridja Dans port. 33. Ad sunnanverdu eru eins 4500 mælisköpt, og þrjú port, eitt Símeons port, annad Ísaskars port, þridja Sebúlons port. 34. Ad vestanverdu eru 4500 mælisköpt, þar á eru þrjú porthlid, Gads port eitt, Assers port annad, Naftali port þridja. 35. Ummál borgarinnar er 18000 mælisköpt, og nafn hennar er upp frá þeim degi „Samastadur Drottins".

# Spámadurinn Daníel.

## 1. Kapituli.

Daníel er herleiddur til Babýlonar og mentadur þar, 1—7; hans sparneytni, 8—16, atgjørvi, framfør í vísindum og spádómsgáfa, 17—21.

1. Á þridja ári ríkis Jójakims, konúngs í Júdaríki, fór Nebúkadnesar Babels konúngur med her móti Jerúsalemsborg, og settist um hana; 2. og Drottinn gaf Jójakim, konúng Júdaríkis, á vald hans, og þarmed nokkrar af gérsemum Guds húss, lét konúngurinn flytja þær til Sínears lands, og lagdi gérsemarnar í godafjárhirdslu sína. 3. Konúngurinn baud Aspenasi, sínum ædsta hirdstjóra, ad velja nokkura únga menn medal Ísraelsmanna, af konúngsættinni eda ødrum høfdíngja ættum, 4. sveina þá, er eingin lýti hefdi, væri frídir sýnum, vel viti bornir, mentadir og til vísinda fallnir, og hæfilegir til ad þjóna í høll konúngsins og baud ad kénna þeim bókmentir og túngumál Kaldeamanna. 5. Konúngurinn ætladi þeim daglegan skamt af þeim konúnglegu kræsíngum og af því víni, sem hann sjálfur drakk, og ætladi svo til, ad þá skyldi uppala í þrjú ár, og ad þeim lidnum skyldu þeir þjóna frammi fyrir konúnginum. 6. Medal þessara voru þeir Daníel, Hananía, Mísael og Asaría, af

Júdamønnum: 7. en sá ædsti hirdstjóri breytti
nøfnum þeirra, og kalladi Daníel Beltsasar,
Hananíu Sadrak, Mísael Mesak, og Asaríu
Abednegó. 8. Daníel hafdi einsett sér ad saurga
sig ekki á kræsíngum konúngsins, eda á því víni,
sem hann drakk, og mæltist því til af hird-
stjóranum, ad hann þyrfti ekki ad saurga sig
þar med; 9. og Gud gaf Daníeli þad, ad
hirdstjórinn var honum mildur og líknsamur.
10. Hirdstjórinn sagdi til Daníels: eg óttast,
ad minn herra, Konúngurinn, sem hefir tiltekid
ydar mat og drykk, sjái ydur yfirbragdsdauf-
ari, en adra jafnborna sveina, og verdid þér
svo þess ollandi, ad eg fyrirgjøri lífi mínu vid
Konúnginn. 11. Þá sagdi Daníel til Mels-
ars, sem hirdstjórinn hafdi sett yfir þá Daníel,
Hananíu, Mísael og Asaríu: 12. gjør tilraun
vid oss, þjóna þína, í 10 daga, og géf oss
kálmat ad eta og vatn ad drekka, 13. skoda
sídan vort yfirbragd og svo yfirlit þeirra æsku-
manna, sem eta af kræsíngum Konúngsins, og
breyt svo vid oss, þjóna þína, eptir því sem
þér þá líst á oss. 14. Hann lét þetta eptir
þeim, og gjørdi tilraun vid þá í 10 daga; 15.
en ad þeim 10 døgum lidnum reyndist þad,
ad þeir voru yfirbragdsbetri og þriflegri, en
allir þeir æskumenn, sem lifdu vid kræsíngar
Konúngsins; 16. tók Melsar þá frá þeim þær
kræsíngar og þad vín, sem þeim hafdi verid
ætlad, og gaf þeim kálmat. 17. Gud gaf þessum
fjórum æskumønnum kunnáttu og greind i alls-
konar bókmentum og vísindum; en Daníeli gaf
hann skilníng á allsháttar vitrunum og draum-
um. 18. En er lidinn var sá tími, sem Kon-
úngur hafdi tiltekid ad þeir skyldu koma á fund
sinn, þá leiddi hirdstjórinn þá fram fyrir Ne-
búkadnesar. 19. En er Konúngur taladi vid
þá, fannst einginn af þeim øllum, sem væri
jafníngi þeirra Daníels, Hananíu, Mísaels og
Asaríu, og voru þeir teknir í Konúngs þjón-
ustu; 20. og hvervetna þegar Konúngur rád-
færdi sig vid þá í þeim hlutum, sem viturleik
og skilníng þurfti vid ad hafa, þá fann hann
þá tíu sinnum fremri enn alla kunnáttumenn
og stjørnuvitrínga í gjørvøllu hans ríki. 21.
Daníel dvaldist (í Babýlon) allt til fyrsta árs
Sýrusar Konúngs.

## 2. Kapítuli.

Daníel útþýdir draum Nebúkadnesars um líknesķjuna.

1. Á ødru ári ríkis Nebúkadnesars dreymdi
Nebúkadnesar draum, og vard hann svo áng-
urvær af draumnum, ad hann fékk andvøkur.
2. Þá baud Konúngurinn ad kalla til sín kunn-
áttumenn, stjørnuvitrínga, galdramenn og Kald-
easpekínga, ad þeir skyldu segja Konúnginum,
hvad hann hefdi dreymt. Þeir komu, og
gengu fyrir Konúnginn. 3. Konúngur sagdi
til þeirra: draum dreymdi mig, og er eg mjøg
áhyggjufullur ad vita hvada draumur þad er.
4. Kaldear søgdu til Konúngsins á Sýrlendsku:
njóti Konúngurinn lángra lífdaga! Seg oss
drauminn, þjónum þínum, og munum vér þá
segja þér þýdínguna. 5. Konúngurinn tók til
orda og sagdi til Kaldea: minn ásetníngur
stendur stødugur, ad ef þér ekki segid mér draum-
inn og þýdíng hans, skulud þér verda høggnir
í stykki og ydar hús gjørd ad moldar hrúgum;
6. en ef þér segid mér drauminn og þýdíng
hans, skulud þér af mér þyggja skenkíngar,
gjafir og miklar gersemar; segid mér þessvegna
drauminn og hans útskýríng! 7. Þeir svør-
udu aptur og søgdu: segi Konúngurinn oss
drauminn, þjónum sínum, og þá munum vér
segja þýdínguna. 8. Konúngur tók til orda
og sagdi: eg veit med vissu, ad þér ætlid ad
leita ydur fresta, þared þér sjáid, ad mín fyrirætlan
stendur stødug; 9. því ef þér segid mér ekki draum-
inn, þá gengur ydur þad eitt til, ad þér hafid
komid ydur saman um ad fara med fals og

lygar fyrir mér, og viljid svo bída þess, ad tíminn breyti sér. Segid mér því drauminn, og þá mun eg trúa, ad þér megid og segja mér þýdíng hans. 10. Kaldear svørudu Konúnginum og søgdu: eingiun er sá madur í heimi, ad segja kunni þad er Konúngurinn mælist til; eingin er heldur sá Konúngur, hvørsu mikill og voldugur sem verid hefir, ad til slíks hafi mælst af nokkurum kunnáttumanni, stjørnuvitríngi eda Kaldea spekíngi; 11. því þad, sem Konúngurinn mælist til, er helst til torveldt, og einginn kann ad kunngjøra þad Konúnginum, nema gudirnir einir, hvørra bústadir ekki eru hjá mønnum. 12. Af þessu vard Konúngurinn stórlega reidur, og sagdi ad taka skyldi af lífi alla vísindamenn í Babel; 13. gékk sú skipun út, ad lífláta skyldi vísindamennina, og var leitad ad þeim Daníel og féløgum hans, til ad drepa þá. 14. Þá leitadi Daníel eptir med viturleik og skynsemi vid Aríok, høfudvardar foríngja Konúngsins, sem út var genginn til ad aflífa vísindamennina í Babel; 15. hann tók til máls og spurdi Aríok, valdsmann Konúngsins, hví svo hardur úrskurdur væri út géfinn af Konúnginum; en Aríok sagdi Daníeli allan málavøxt. 16. Þá gékk Daníel inn til Konúngs, og bad hann géfa sér frest, ad hann mætti segja Konúnginum þýdínguna. 17. Eptir þad gékk Daníel heim, og sagdi féløgum sínum frá þessu, þeim Hananíu, Mísaeli og Asaríu, 18. ad þeir bædi Gud himnanna um þá miskun, ad hann vildi birta þeim þenna leyndardóm, svo Daníel og hans félagar yrdi ei af lífi teknir med hinum ødrum vísindamønnum í Babel. 19. En um nóttina vard þessi leyndardómur opinberadur Daníeli í einni vitran, og þá lofadi Daníel himnanna Gud. 20. Daníel tók til máls og sagdi: vegsamad veri nafnid Guds frá eilífd til eilífdar! því hans er vísdómurinn og mátturinn; 21. hann umbreytir tímum og tækifærum, hann affetur og innsetur Konúnga, hann géfur spekíngunum speki og þeim skynugu skilníng, 22. hann opinberar óransakanlega og hulda hluti, hann veit hvad í myrkrinu leynist, og ljósid býr allavega í kríng um hann. 23. Eg þakka þér og lofa þig, Gud fedra minna, fyrir þad ad þú hefir lént mér vísdóm og styrk; þú hefir nú opinberad mér þad, sem vér bádum þig um: þad sem Konúngurinn vildi vita, hefir þú gjørt oss opinbert. 24. Daníel gékk nú inn til Aríoks, hvørjum Konúngur hafdi um bedid ad aflífa vitríngana í Babel; hann kom og sagdi svo til hans: lát ei aflífa vitríngana í Babel, leid mig inn fyrir Konúnginn, eg vil segja Konúnginum þýdínguna. 25. Sídan fór Aríok med Daníel í skyndi inn fyrir Konúnginn, og mælti svo til hans: eg hefi fundid einn mann á medal enna herleiddu frá Júdalandi, sem gétur sagt Konúnginum þýdínguna. 26. Konúngurinn tók til máls, og sagdi til Daníels, sem kalladur var Beltsasar: treystir þú þér til ad segja mér þann draum, sem mig dreymdi, og þýdíngu hans? 27. Daníel svaradi Konúnginum og sagdi: þann leyndardóm, sem Konúnginn forvitnar ad vita, kunna aungvir vísindamenn, stjørnuvitríngar, kunnáttumenn eda spásagnarmenn ad segja Konúnginum; 28. en í himninum er sá Gud, sem opinberar leynda hluti, hann hefir kunngjørt Konúnginum Nebúkadnesar, hvad verda muni á þeim sídustu tímum. Sá draumur og þær vitranir, sem fyrir þig báru í sæng þinni, eru þessar: 29. á sæng þinni uppsté hjá þér, Konúngur, sú hugsan, hvad hér eptir verda mundi; og hann, sem leynda hluti opinberar, hefir kunngjørt þér, hvad verda muni. 30. En hvad mig áhrærir, þá er þad ekki fyrir nokkurrar vitsku sakir, sem eg hafi til ad bera um fram alla menn adra, þá er nú eru uppi, ad þessi leyndardómur er mér

opinber ordinn, heldur til þess ad þýdíngin yrdi Konúnginum kunngjørd, og þú fengir ad vita þínar hjartans hugsanir. 31. Þú sást, Konúngur, og sjá! frammi fyrir þér stód mikid líkneski; þessi líkneskja var há, yfirtaks ljómandi, og ógurleg álits. 32. Høfud líkneskjunnar var af skíru gulli, brjóstin og armleggirnir af silfri, kvidurinn og lendarnar af eiri, 33. leggirnir af járni, en þar sem fæturnir voru, var sumt af járni, sumt af leir. 34. Þú horfdir á hana, þar til steinn nokkurr losnadi, án þess nokkurr vid hann kjæmi, hann lendti á fótum líkneskjunnar, sem voru af járni og leir, og braut þá í sundur; 35. Þá sundurmuldist hvad med ødru, járnid, leirinn, silfrid og gullid, og vard eins og sádir á sumarlásа, vindurinn feykti því á burt, svo þess sá eingan stad; en steinn sá, er laust líkneskjuna, vard ad stóru fjalli, og tók yfir alla jørdina. 36. Þetta er draumurinn; nú viljum vér segja konúnginum þýdíngu hans: 37. þú, konúngur, ert yfirkonúngur annara konúnga, því himnanna konúngur hefir géfid þér ríkid, máttinn, veldid og tignina; 38. og hvervetna þar er menn búa, og dýr skógar og fuglar himins eru, þar hefir hann selt allt í hendur þér, og veitt þér vald yfir því øllu: þú ert gullhøfudid. 39. Eptir þig mun hefjast annad konúngsríki, minna háttar en þitt er, og þarnæst hid þridja ríki af eiri, sem drottna mun yfir allri verøldu; 40. fjórda ríkid mun hardt verda sem járn; því eins og járnid sundurbrýtur og mølvar allt, og molar alla þessa málma, eins mun þetta ríki mølva og sundurbrjóta hin ríkin. 41. En þar er þú sást fæturnar og tærnar, ad sumt var af leirkéra-mó, sumt af járni, þar mun ríkinu verda skipt; þó mun þad nokkuru í sér halda af hørku járnsins, þar sem þú sást járnid blandad saman vid deigulmóinn. 42. En þar er tærnar voru sumskostar af járni og sumskostar af leir, þá mun þad ríki ad nokkuru leiti verda øflugt, og ad nokkuru leiti veikt; 43. og þar er þú sást járnid blandad saman vid deigulmóinn, þá munu þeir med kvonfaungum samanblandast, og þó ekki samþýdast hvørir ødrum, eins og járnid samlagar sig ekki vid leirinn. 44. En á døgum þessara konúnga, mun Gud himnanna hefja eitt ríki, sem aldrei skal til grunna gánga, og þad ríki skal aungvu ødru fólki í hendur fengid verda, þad mun knosa og ad eingu gjøra øll þessi ríki, en sjálft skal þad standa ad eilífu, 45. fyrst ad þú sást, ad steinn nokkur losnadi vid fjallid, án handa tilverknadar, og mølvadi járnid, eirid, leirinn, silfrid og gullid. Sá hinn mikli Gud hefir kunngjørt konúnginum, hvad hér eptir muni verda. Draumurinn er sannur, og þýdíng hans áreidanleg. 46. Þá féll Nebúkadnesar konúngur fram á ásjónu sína, og laut Daníeli, og baud ad fórna honum matarfórn og reykelsi. 47. Konúngurinn svaradi Daníeli og sagdi: í sannleika er ydar Gud yfirgud gudanna, yfirkonúngur konúnganna og opinberari leyndra hluta, med því þú máttir þenna leyndardóm auglýsa. 48. Eptir þad gjørdi Konúngurinn Daníel ad miklum manni, og gaf honum stórmiklar og margar gjafir, setti hann høfdíngja yfir allt Babels hérad, og gjørdi hann ad ædsta forstjóra yfir øllum vísindamønnum í Babel; 49. en Daníel mæltist til af Konúnginum, ad hann gjørdi þá Sadrak, Mesak og Abednegó ad sýslumønnum yfir Babels héradi, en sjálfur var Daníel vid hird Konúngsins.

## 3. Kapítuli.

Sadrak, Mesak og Abednegó er kastad í eldsofn.

1. Nebúkadnesar konúngur lét gjøra líkneskju af gulli, 60 álna á hæd og 6 álna á breidd; hann lét reisa hana í Dúra-dal í Babels héradi. 2. Nebúkadnesar konúngur gjørdi bod eptir þjódjørlunum, yfirjørlunum, undirjørlunum,

yfirdómurunum, gjaldkérunum, løgmønnunum, løgsøgumønnunum og øllum sýslumønnum, ad þeir skyldu koma saman til ad vígja þá líkneskju, sem Nebúkadnesar konúngur hafdi reisa látid. 3. Þá søfnudust saman þjódjarlarnir, yfirjarlarnir, undirjarlarnir, yfirdómendurnir, gjaldkérarnir, løgmennirnir, løgsøgumennirnir, og allir sýslumenn, til ad vígja þá líkneskju, sem Nebúkadnesar Konúngur hafdi reisa látid; og er þeir stódu frammi fyrir þeirri líkneskju, er Nebúkadnesar Konúngur hafdi látid reisa, 4. þá kalladi kallarinn hárri røddu: svo er ydur øllum bodid, hvørrar þjódar og hvada landsmenn sem þér erud, og hvørja túngu sem þér talid, 5. ad þegar er þér heyrid hljód hornanna, pípnanna, harpnanna, gígjanna, saltaranna, symfónanna, og allskyns strengleika, þá skulud þér fram falla, og tilbidja þá gull-líkneskju, sem Nebúkadnesar Konúngur hefir reisa látid; 6. en hvørr sem eigi fellur fram og tilbidur, þeim skal á samri stundu kastad verda inn í brennanda eldsofn. 7. Þess vegna, undir eins og allt fólkid heyrdi hljód hornanna, pípnanna, harpnanna, gígjanna, saltaranna og annara hljódfæra, þá féllu allir fram, hvørrar þjódar, hvørs lands, og hvørrar túngu sem voru, og tilbádu þad gull-líkneski, sem Nebúkadnesar Konúngur hafdi gjøra látid. 8. En á sømu stundu gengu fram nokkurir menn af Kaldeum, og ákjærdu Gydínga; 9. þeir tóku svo til orda, og søgdu til Nebúkadnesars Konúngs: njóti Konúngurinn lángra lífdaga! 10. Þú gafst, Konúngur, þá skipun, ad hvørr madur, sem heyrdi hljód hornanna, pípnanna, harpnanna, gígjanna, saltaranna, symfónanna, og annara hljódfæra, skyldi fram falla og tilbidja gull-líkneskid, 11. og hvørr sem ekki félli fram og tilbædi, honum skyldi kasta inn í brennanda eldsofn. 12. Nú eru hér Gydíngar nokkurir, sem þú hefir sett til yfirstjórnar yfir Babels héradi, þeir Sadrak, Mesak og Abednegó; þessir menn virda þig ad aungvu, Konúngur, þeir dýrka ekki þína gudi, og tilbidja ekki þá gull-líkneskju, sem þú hefir reisa látid. 13. Þá vard Nebúkadnesar fullur reidi og heiptar, og baud ad leida fram þá Sadrak, Mesak og Abednegó; og voru þessir menn leiddir fyrir Konúnginn. 14. Nebúkadnesar tók til máls og sagdi til þeirra: er þad af ásettu, Sadrak, Mesak og Abednegó, ad þér ekki viljid dýrka minn gud, og ekki tilbidja þá gull-líkneskju, sem eg hefi reisa látid? 15. Nú vel! erud þér nú vidbúnir, jafnskjótt og þér heyrid hljód hornanna, pípnanna, harpnanna, gígjanna, saltaranna, symfónanna og annara hljódfæra, ad falla fram og tilbidja þá líkneskju, sem eg hefi gjøra látid? Ef þér tilbidjid hana ekki, þá skal ydur samstundis kastad verda inn í eldsofn brennanda; og hvørr er sá Gud, er ydur megi frelsa úr mínum høndum? 16. Sadrak, Mesak og Abednegó svørudu, og søgdu til Nebúkadnesars Konúngs: ekki mun oss ordfátt verda, ad svara þér hér til; 17. Sjá þú! vor Gud, sem vér dýrkum, gétur frelsad oss úr eldsofni brennanda; hann mun frelsa oss af þinni hendi, Konúngur, 18. og þó hann gjøri þad ekki, þá skaltu samt vita, Konúngur, ad vér munum ekki dýrka þína gudi, og ekki tilbidja þá gulllíkneskju, sem þú hefir reisa látid. 19. Þá fyltist Nebúkadnesar heiptarreidi vid þá Sadrak, Mesak og Abednegó, svo hans ásjóna afmyndadist; en er hann fékk ordum upp komid, baud hann ad kynda ofninn sjøfaldt heitara, en menn hefdi fyrr sjed; 20. þá baud hann ramefldum mønnum, sem voru í her hans, ad binda þá Sadrak, Mesak og Abednegó, og kasta þeim svo í hinn brennanda eldsofn. 21. Sídan voru þessir menn bundnir í leistabrókum, kyrtlum, yfirhøfnum og klædnadi sínum, og þeim varpad inn í

hinn brennanda eldsofn; 22. og søkum þess ad skipun Konúngsins var svo streingileg, en ofninn kyndtur ákaflega, þá drap eldsloginn marga af mønnum þeim, sem køstudu þeim Sadrak, Mesak og Abednegó inn í ofninn; 23. en þeir þrír menn, Sadrak, Mesak og Abednegó, féllu bundnir nidur í þann brennanda eldsofn. 24. Brátt þar eptir vard Nebúkadnesar Konúngur forvida, spratt upp skyndilega, og mælti til rádgjafa sinna: høsum vér ekki látid fleygja þremur mønnum fjøtrudum inn í eldinn? Þeir svørudu Konúnginum og søgdu: vissulega Konúngur! 25. Hann svaradi og sagdi: eg sje þó fjóra menn gánga lausa inni í eldinum, án þess nokkud hafi ordid þeim ad grandi, og er því líkast, sem hinn fjórdi sé sonur godanna. 26. Þá gékk Nebúkadnesar ad munna hins brennanda eldsofns, tók til orda og sagdi: Sadrak, Mesak og Abednegó, þjónar hins hæsta Guds! gángid út, og komid híngad! Þá gengu þeir Sadrak, Mesak og Abednegó út úr eldinum. 27. Þá flyktust ad þjódjarlarnir, yfirjarlarnir og undirjarlarnir, og rádgiafar Konúngsins, og sáu, ad eldurinn hafdi ekki á þessa menn unnid, og ekki var svidnad eitt hár á høfdi þeirra, leistabrókum þeirra var ekki brugdid, og einginn eldseimur fannst af þeim. 28. Þá tók Nebúkadnesar til orda, og sagdi: lofadur sé Gud þeirra Sadraks, Mesaks og Abednegós! hann sendi sinn eingil, og frelsadi sína þjóna, sem í trausti til hans, skeyttu ekki bodskapi Konúngsins, heldur løgdu líkami sína í sølurnar, til þess þeir skyldu aungvan gud heidra né tilbidja annan, en þeirra Gud. 29. Nú útgéf eg þá skipun, ad sérhvørr, hvørrar þjódar, hvørs lands og hvørrar túngu sem er, sem mælir lastmæli gégn Gudi þeirra Sadraks, Mesaks og Abednegós, sá skal høggvinn verda í stykki, og hús hans gjørt ad moldarhrúgu; því einginn annar gud er til, sem eins gétur frelsad og hann. 30. Sídan hóf Konúngurinn þá Sadrak, Mesak og Abednegó til stórra mannvirdínga í Babels héradi.

## 4. Kapítuli.

Hegníng Nebúkadnesars fyrir dramblæti sitt.

1. Nebúkadnesar Konúngur heilsar øllum mønnum, sem á jørdunni búa, hvørrar þjódar, hvada lands og hvørrar túngu sem eru: ydar fridur sé mikill! 2. Eg hefi látid mér vel líka, ad kunngjøra þau tákn og furduverk, sem hinn hæsti Gud hefir gjørt vid mig; 3. hvørsu stór eru hans tákn, hvørsu máttug hans dásemdarverk! hans ríki er eilíft ríki, og hans máttarveldi varir frá einni kynslód til annarar. 4. Eg Nebúkadnesar lífdi í ró í húsi mínu, og átti góda daga í høll minni; 5. þá dreymdi mig draum nokkurn, sem gjørdi mig óttaskélfdan; þær hugsanir, sem eg hafdi í rekkju minni, og þær sjónir, sem fyrir mig báru, þær sturludu mig. 6. Eg lét þá bodskap út gánga, ad allir vísindamenn í Babel skyldu koma á minn fund, til þess ad segja mér þýdíngu draumsins. 7. Eptir þad komu kunnáttumennirnir, stjørnuvitríngarnir, Kaldeaspekíngar og spásagnarmennirnir á fund minn, og sagda eg þeim drauminn, en þeir gátu ekki sagt mér þýdíng hans. 8. Loksins kom Daníel til mín, sem kalladur er Beltsasar eptir nafni míns guds, í hvørjum ad býr andi enna heiløgu guda. Eg sagdi honum drauminn: 9. Beltsasar, þú ædsti forstjóri kunnáttumannanna! eg veit, ad í þér býr andi enna heiløgu guda, og ad einginn leyndardómur er þér ofvaxinn. Seg mér, hvad sú sýn á ad þýda, sem í draumi hefir fyrir mig borid. 10. Sú sýn, sem fyrir mig bar í rekkju minni, var þessi: eg sá, og sjá! tré nokkurt stód á midri jørdinni, geysihátt; 11. tréd var mikid og digurt, og svo hátt, ad upp

tók til himna, og mátti sjá það allavega frá ytstu endimörkum jarðarinnar; 12. þess limar voru fagrar, og ávöxturinn mikill, svo að allt fékk fæðslu þar af; skógardýrin lágu undir þess skuggum, fuglar himinsins sátu á þess kvistum, og allar skepnur nærdust af því. 13. Enn fremur sá eg sjónir, sem fyrir mig báru í rekkju minni: sjá! vørður a) nokkur eða einhvørr enna heilögu stè niður af himnum, 14. hann kallaði hárri röddu og mælti svo: höggvið upp tréð, affnidið limarnar, slítið af því laufblöðin, og dreifið ávöxtunum víðs vegar, svo að dýrin flýi burt undan því, og fuglarnir fljúgi af þess kvistum. 15. Samt skuluð þèr láta stofninn með rótum sínum vera kyrran eptir í jörðinni; járnviðjum og eirfjötrum bundinn skal hann í grashögum gánga, hann skal vökna af loptsdögginni og ásamt með dýrunum skal hann hlutdeild taka í grösum jarðarinnar. 16. Hans hjarta skal umbreytast, svo að í honum skal ekki mannshjarta vera, heldur skal honum dýrshjarta fengið verða, uns sjö tíðir eru yfir hann liðnar. 17. Þetta er ályktun varðhaldaranna b), þetta er boðskapur enna heilögu, svo hinir lifendu skuli viðurkénna, að hinn hæsti hefir vald yfir ríkjum mannanna, og gèfur þau hvörjum sem hann vill, og setur þá lítilmótlegustu meðal mannanna yfir þau. 18. Þessi er sá draumur, sem mig, Nebúkadnesar Konúng, hefir dreymt; en þú, Beltsasar, seg þýðíngu hans, fyrst einginn vísindamaður í mínu ríki gètur sagt mèr, hvað hann hafi að þýða, en þú gètur það, því í þèr býr andi enna heilögu guða. 19. Þá varð Daníel, sem nefndur var Beltsasar, frá sèr numinn um stund, og hans hugsanir sturluðu hann. En Konúngurinn tók til orða og sagði: Beltsasar! lát eigi drauminn nè hans útþýðíng sturla þig. Beltsasar svaraði og sagði: eg vildi óska, herra, að draumurinn rættist á óvinum þínum, og þýðíng hans á þínum mótstöðumönnum! 20. Það trè, sem þú sást, og sem bæði var mikið og gildt, og svo hátt, að upp tók allt til himins, og gat sjeð orðið um alla veröldina, 21. limar þess fagrar, ávöxturinn svo mikill, að allt fékk fæðslu þar af, skógardýrin lágu undir því, og fuglar himins sátu á kvistum þess: 22. þetta trè ert þú, Konúngur, sem ert svo mikill og máttugur, og veldi þitt svo stórt, að það nær til himins, og þín yfirdrottnun allt út til heimsenda. 23. En þar er Konúngurinn sá vørð nokkurn eða einhvörn enna heilögu niður stíga af himni, og segja: „höggvið upp tréð og eyðileggið það, en látið þó stofninn með rótum sínum kyrran eptir vera í jörðinni; járnviðjum og eirfjötrum bundinn skal hann í grashögum gánga, hann skal vökna af loptsdögginni, og ásamt með dýrunum hlutdeild hafa í grösum jarðarinnar, uns sjö tíðir eru yfir hann liðnar"; 24. þá hefir það þetta að þýða, Konúngur, og þessi er ráðstöfun hins hæsta, sem koma mun fram á mínum herra Konúnginum: 25. þú munt útrekinn verða úr manna fèlagi, og búa meðal skógardýra; þú munt gras eta sem uxar, og vökna af himindögginni; þannig skulu sjö tíðir yfir þig líða, uns þú viðurkénnir, að sá hinn hæsti hefir vald yfir ríkjum mannanna, og veitir þau hvörjum sem hann vill. 26. En þar er sagt var, að stofn trèsins með rótum sínum skyldi eptir verða, það merkir, að þú skalt halda ríki þínu, þegar þú kannast við, að allt valdið er á himnum. 27. Lát þèr því, Konúngur, þóknast ráð mitt, frelsa syndir þínar með ölmusugjöfum, og þínar misgjörðir með því að kénna í brjósti um aumíngjana; má vera, að hamíngjulán þitt verði við það lángæðara. 28. Allt þetta kom fram við Ne-

V. 13. *a.* Þ. e. Engill, Englanna. V. 17. *b.* Sbr. v. 13.

búkadnesar Konúng. 29. Þegar Konúngur ad lidnum 12 mánudum var á gángi í Konúngshøllinni í Babel, 30. tók hann til orda og mælti: „er þetta ekki sú hin mikla Babelsborg, sem eg hefi byggja látid med mínum veldisstyrk til Konúngsadseturs og minni tign til frægdar". 31. Medan Konúngurinn hafdi þessi ord á vørum sér, kom raust af himni ofan: þér gjørist hérmed vitanlegt, Nebúkadnesar Konúngur, ad Konúngdómurinn er vikinn í burtu frá þér; 32. þú skalt útrekinn verda úr mannafélagi, og eiga bygd med skógardýrum, þú skalt gras eta sem uxar, og þannig skulu sjø tídir yfir þig lída, uns þú vidurkénnir, ad hinn hæsti hefir vald yfir rikjum mannanna, og veitir þau hvørjum sem hann vill. 33. Þessi ummæli rættust samstundis á Nebúkadnesar: hann vard útskúfadur frá mønnum, át gras sem uxar, hans líkami vøknadi af himindøgginni, og um sídir vóx hár hans sem arnarfjadrir, og neglur hans sem fuglaklær. 34. En ad lidnum þessum tíma hóf eg, Nebúkadnesar, augu mín upp til himins, og fékk eg þá vit mitt aptur: eg vegsamadi hinn hæsta, lofadi og heidradi þann, sem lifir eylíflega; því hans veldi er eylíft veldi, og hans ríki varir frá einni kynslód til annarar. 35. Allir þeir, sem á jørdunni búa, eru einskis virdi; hann breytir himnanna her og vid innbyggjendur jardar eins og hann sjálfur vill; einginn er sá, sem megni honum tálmun ad gjøra, eda vid hann fái sagt: hvad gjørir þú? 36. Á þeim sama tíma, sem eg fékk vit mitt aptur, komst eg og aptur til minnar Konúnglegu tignar, frægdar og vegsemdar; mínir rádgjafar og vildarmenn leitudu mín, eg var aptur skipadur yfir ríkid, og vard enn ágjætari enn ádur. 37. Þess vegna lofa eg, Nebúkadnesar, upphef og vegsama himnanna Konúng; því allar hans gjørdir eru sannleikur, hans vegir eru réttir, og þá, sem framgánga í dramblæti, kann hann ad lítillæta.

## 5. Kapítuli.

*Daníel les og útþýdir letrid á veggnum.*

1. Beltsasar konúngur a) héldt veitslu mikla sínum 1000 stórhøfdíngjum, og drakk vín med þeim; 2. en er menn tóku til ad gjørast ølhreifir, bad Beltsasar ad sækja þau gullkér og silfurkér, sem Nebúkadnesar, fadir hans, hafdi tekid úr musterinu í Jerúsalem, til þess ad konúngurinn sjálfur og hans stórhøfdíngjar, konur hans og hjákonur, drykki þar af. 3. Þá voru fram borin þau gullkér, sem tekin høfdu verid úr musterinu, úr Gudshúsi í Jerúsalem; og konúngurinn, hans stórhøfdíngjar, eiginkonur og hjákonur, drukku af þeim. 4. Þeir drukku nú vínid, og vegsømudu þá gudi, sem gjørdir voru af gulli, silfri, eiri, járni, tré og steini. 5. Á sømu stundu komu fram eins og fíngur á mannshendi, sem ritudu eitthvad á kalkid á veggnum í konúngshøllinni, gégnt ljósahjálminum, og sá konúngurinn inn í lófa handarinnar, sem ritadi. 6. Þá tók konúngurinn litaskipti og vard skélkadur: mjadmir hans engdust saman, og hans kné titrudu. 7. Konúngurinn kalladi hástøfum, ad þángad skyldi leida stjørnuvitríngana, Kaldeaspekínga og spásagnarmennina; lét konúngur segja vísindamønnunum í Babel: „hvørr sem les þetta letur og segir mér þýdíng þess, sá skal klæddur verda í purpura, bera gullfesti á hálsi sér, og vera þridji yfirhøfdíngi í ríki mínu". 8. Þá voru allir vísindamenn konúngsins leiddir inn þángad, en þeir gátu hvørki lesid letrid, né sagt konúngi þýdíngu þess; 9. hvørs vegna Beltsasar konúngur vard mjøg skélfdur og litverpur, og stórhøfdíngjar hans urdu óttaslegnir. 10. En er svo var ástadt fyrir konúngi og stórhøfdíngjum hans, gékk

V. 1. *a,* Líklega sá seinasti Kóngur í Babylon, sem adrir nefna Nabonned.

drottníngin inn í drykkjustofuna, tók til orda og mælti: njóti konúngurinn lángra lífdaga! vert ei óttasleginn, og skipt ei svo þínum yfirlitum! 11. Sá madur er í ríki þínu, í hvørjum ad býr andi heilagra guda; því á døgum fødur þíns fannst hjá þeim manni ljós, skilníngur og vísdómur, líkur vísdómi gudanna; og því gjørdi Nebúkadnesar fadir þinn, hann ad yfirhøfdíngja kunnáttumannanna, stjørnuvitrínganna, Kaldeaspekínga og spásagnarmanna. Þetta gjørdi fadir þinn, konúngur, 12. søkum þess ad hjá honum fannst frábær gáfa kunnáttu og skilníngs, til ad þýda drauma, ráda gátur og greida úr vandamálum; hann heitir Daníel, en konúngurinn lét kalla hann Beltsasar. Kalli nú á Daníel, og mun hann segja hvad þetta merkir. 13. Sídan var Daníel leiddur inn fyrir konúnginn; þá mælti konúngur þessum ordum til Daníels: ertú Daníel einn af þeim herleiddu Gydíngum, sem konúngurinn, fadir minn, lét híngad flytja frá Júdalandi? 14. Eg hefi heyrt af þér sagt, ad andi gudanna sé í þér, og ad hjá þér finnist ljós, skilníngur og frábær vísdómur. 15. Nú hefi eg látid leida inn fyrir mig vísindamenn og stjørnuvitrínga, til ad lesa þetta letur og segja mér þýdíngu þess, en þeir hafa ekki gétad þad. 16. En eg heyri um þig, ad þú kunnir þýdíngar ad ráda og úr vandmælum ad greida. Nú ef þú gétur lesid þetta letur og sagt mér þýdíngu þess, þá skaltu klæddur verda í purpura, bera gullfesti á hálsi þér, og vera hinn þridji yfirhøfdíngi í ríkinu. 17. Þá tók Daníel til orda og svaradi konúnginum: haldtú sjálfur þinni gáfu, og veit gjafir þínar einhvørjum ødrum. En ei ad sídur mun eg lesa þetta letur fyrir konúnginum, og segja þýdíngu þess. 18. Þú konúngur! Gud sá hinn hæsti veitti Nebúkadnesar, fødur þínum, ríki, vald, ágjæti og vegsemd; 19. og søkum þess veldis, sem hann hafdi veitt honum, hræddust hann allar þjódir, fólk og túngumál, og høfdu beig af honum, því hann aflífadi hvørn sem hann vildi, og lét lifa hvørn sem hann vildi, hann hóf hvørn er hann vildi, og lítillætti hvørn er hann vildi. 20. En er hjarta hans metnadist og hugur hans gjørdist ofdrambsfullur, þá var honum hrundid úr konúngs hásætinu, og metordin tekin af honum; 21. hann var rekinn úr mannafélagi, hans hjarta vard líkt dýrshjarta, hann átti bygd medal skógarasna, át gras sem uxar, og líkami hans vard votur af himindøgginni, allt þar til hann kannadist vid, ad hinn hæsti Gud hefir vald yfir ríkjum mannanna, og veitir þau hvørjum sem hann vill. 22. Og þú Beltsasar, sonur hans, hefir ekki lítillætt þitt hjarta, enn þótt þú vissir allt þetta, 23. heldur hefir þú sett þig upp á móti Drottni himnanna, og látid færa þér kérin úr hans húsi og drukkid vín af þeim ásamt med stórhøfdíngjum þínum, eiginkonum og hjákonum; þú hefir og lof súngid þeim gudum, sem gjørdir eru af silfri, gulli, eiri, járni, tré og steini, sem ekki sjá, ekki heyra og ekkért vita, en þann Gud, í hvørs hendi þinn andardráttur er og rád hefir á øllum þínum høgum, hann hefir þú ekki vegsamad. 24. Þess vegna er þessi handarlósi frá honum sendur, og þetta letur ritad. 25. En letrid, sem ritad er, er svo látandi: Mene, Tekel, Peres. 26. Þessi er þýdíng letursins: Mene, talid, þ. e. Gud hefir talid þín ríkisár og leidt þau til enda; 27. Tekel, vegid, þ. e. þú ert veginn í skálum og léttvægur fundinn; 28. Peres, deilt, þ. e. þitt ríki er deilt og géfid Medum og Persum. 29. Því næst baud Beltsasar ad skrída Daníel purpura, og láta gullfesti á háls honum, og gjøra heyrum kunnugt, ad hann skyldi vera þridji yfirhøfdingi í ríkinu. 30. En á hinni sømu nóttu var Beltsasar Kaldea Konúngur drepinn.

## 6. Kapítuli.

Daníeli kastad í ljónagrof.

1. Þá tók Daríus frá Medíalandi vid rík-
inu, og hafdi þá tvo vetur um sextugt. 2.
Daríus lét sér líka ad setja yfir ríkid 120 þjód-
jarla, og skipti þeim út um allt ríkid; 3. yfir
þessa setti hann þrjá yfirhøfdíngja, einn af
þeim var Daníel; skyldu þjódjarlarnir gjøra
þeim skilagrein, svo Konúngur bidi eingan skada.
4. En af því Daníel þessi bar af yfirhøfdíng-
junum og þjódjørlunum, sokum þess hann hafdi
frábæra andagipt, þá hugdi Konúngur ad set-
ja hann yfir allt ríkid. 5. Þá leitudu yfir-
høfdíngjarnir ad finna Daníeli eitthvad til saka,
þad er landstjórninni vidvéki, en gátu einga søk
eda misgjørd fundid, því hann var trúr, svo
ekkért afbrot eda misgjørd fannst í fari hans.
6. Þá søgdu þessir menn: vér munum ekkért
fundid géta Daníeli þessum til saka, nema ef
vér finnum honum eitthvad ad søk í því, sem
vidkémur átrúnadi hans. 7. Sídan þustu
þéssir yfirhøfdíngjar og þjódjarlar til Konúngs-
ins, og søgdu svo til hans: Daríus Konúng-
ur njóti lángra lífdaga! 8. Øllum yfirhøfd-
íngjum ríkisins, yfirjørlum, þjódjørlum, rád-
gjøfum og undirjørlum hefir komid ásamt um
ad láta þá Konúngs skipun út gánga og þad
forbod stadfesta, ad hvørr sem í 30 daga
gjørir bæn sína til nokkurs guds eda manns,
nema til þín, Konúngur, þeim skal varpa í
ljónagryfju. 9. Nú skaltu, Konúngur, stad-
festa þetta forbod, og láta þad skriflegt út-
gánga, svo þad, eptir órjúfanlegu løgmáli
Meda og Persa, aldrei verdi umbreytt. 10.
Af þessum søkum lét Daríus Konúngur þetta
forbod skriflegt útgánga. 11. En er Daníel
vard þess vísari, ad þessi skipun var útgengin,
gékk hann inn í hús sitt, þar hafdi hann uppi
í loptsalnum opna glugga, sem snéru móti
Jerúsalemsborg; þá kraup hann á kné þrem
sinnum á dag, bad til síns Guds, og vegsamadi
hann, eins og hann ádur var vanur ad gjøra.
12. Þá þustu þessir menn ad, og fundu
Daníel, þar sem hann var ad bidja og ákalla
sinn Gud. 13. Nú gengu þeir fyrir Kon-
únginn, og søgdu í trausti til hins Konúnglega
forbods: hefir þú ei látid þad bod útgánga,
ad hvørr sem í 30 daga gjøri bæn sína til
nokkurs guds eda nokkurs manns, nema til
þín, Konúngur, ad þeim hinum sama skuli
varpa í ljónagryfju? Konúngurinn svaradi
og sagdi: þad stendur stødugt, eptir órjúfan-
legu løgmáli Meda og Persa. 14. Þá svør-
udu þeir, og søgdu til Konúngsins: Daníel,
einn af þeim herleiddu Gydíngum, skeytir hvørki
um þig, Konúngur, né um þad forbod, sem þú
hefir látid skriflegt útgánga, heldur gjørir bæn
sína þrem sinnum á dag. 15. Þegar Kon-
úngur heyrdi þetta, þá féll honum þad næsta
illa, og lagdi allan hug á ad frelsa Daníel,
og allt til sólarlags leitadi hann alls vid, ad
hann fengi honum borgid. 16. En þá þustu
hinir sømu menn til Konúngsins, og søgdu til
hans: þú veitst, Konúngur, ad þad eru løg hjá
Medum og Persum, ad ekki má raska því
bodi eda banni, sem Konúngur hefir sjálfur
stadfest. 17. Þá baud Konúngur ad leida
Daníel fram, og kasta honum í ljónagryfjuna;
en Konúngurinn sagdi til Daníels: þinn Gud,
sem þú dýrkar án afláts, hann frelsi þig! 18.
Sídan var sóktur steinn og lagdur fyrir graf-
armunnann, og innsígladi Konúngur hann sjálf-
ur med sínum innsíglishríng og med innsígl-
ishríngum stórhøfdíngja sinna, til þess sú rád-
støfun, sem gjørd var vid Daníel, skyldi ei
raskast. 19. Eptir þad gékk Konúngur heim
til hallarinnar, var hann þar um nóttina og
neytti einskis matar, og lét aungva af hjá-
konum sínum koma inn til sín, og vard honum ekki
svefnsamt. 20. Undir eins og lýsti af degi, stód

Konúngur upp, og skundadi til ljónagryfjunnar,
21. og þegar hann kom ad grøfinni, kalladi
hann á Daníel med sorglegri raust; Konúng-
urinn tók til orda og sagdi til Daníels: Dan-
íel, þjón lifanda Guds! þinn Gud, sem þú
týrkar án afláts, hefir þá megnad ad frelsa
þig frá ljónunum! 22. Daníel svaradi Kon-
únginum: njóti Konúngurinn lángra lífdaga!
23. minn Gud sendi sinn Engil til ad aptur-
loka munni ljónanna, svo þau skyldu mér ekki
granda, sökum þess ad eg eptir hans dómi er
saklaus fundinn, eins og eg líka eptir þínum
dómi, Konúngur, aungva misgjørd hefi fram-
id. 24. Þá vard Konúngurinn næsta gladur,
og baud ad draga Daníel upp af grøfinni;
var Daníel þá dreginn upp úr grøfinni, og
fannst ekki ad honum hefdi neitt ad skada vord-
id, því hann trúdi sínum Gudi. 25. Því
næst baud Konúngur ad leida fram þá menn,
sem høfdu rægt Daníel, og kasta þeim í ljóna-
gryfjuna med børnum þeirra og konum; og
ádur en þeir komust til botns í gryfjunni,
hremdu ljónin þá, og fundurmuldu øll þeirra
bein. 26. Sídan ritadi Daríus Konúngur bréf
øllum þjódum í øllu sínu ríki, í hvada landi
sem þær voru og á hvørja túngu sem þær mæltu:
„Ydar fridur sé mikill! 27. það er mín skip-
un, ad hvervetna þar sem mitt ríki yfir stend-
ur, þá skulu menn hrædast og óttast Daníels
Gud; því hann er lifandi Gud, og varir ad
eilífu, hans ríki kann ei til grunna ad gánga,
og hans veldi nær allt til heims enda; 28.
hann er sá, sem frelsar og vardveitir, hann
gjørir tákn og furduverk á himni og jørdu,
hann frelsadi Daníel frá valdi ljónanna.“ 29.
Daníel var í miklu gengi, medan þeir sátu ad
ríki Daríus og Sýrus hinn persiski.

## 7. Kapítuli.

Sýn Daníels um þau fjøgur dýr.

1. Á fyrsta ári Beltsasars Babels Konúngs
dreymdi Daníel draum, og báru sjónir fyrir
hann, þar sem hann lá í rekkju sinni; hann
skrásetti drauminn og sagdi frá adalatridum
hans. 2. Daníel hóf upp og sagdi svo: eg
sá eina sýn á náttarþeli, og sjá! þeir fjórir
vindar himinsins brutust fram á því mikla sjáf-
arhafi. 3. Þá stigu fjøgur dýr geysistór upp
af hafinu, hvørt ødru ólíkt: 4. fyrsta dýrid
líktist ljóni, og hafdi arnarvængi; eg horfdi á,
ad vængirnir voru um sídir reyttir af því, því
var lypt upp frá jørdinni og reist á tvær fæt-
ur, sem madur, og því var fengid mannshjarta.
5. Og sjá! þessu næst kom annad dýrid, þad
var líkt bjarndýri; þad var hálfstadid á fæt-
ur, og hafdi þrjú rif í munni sér medal tann-
anna, til þessa dýrs var sagt: statt upp, og et
mikid kjøt! 6. Hér næst bar fyrir mig annad
dýr, líkt pardus-dýri, þad hafdi fjóra vængi
á baki sér, eins og fuglsvængi; þetta dýr hafdi
fjøgur høfud, og því var vald géfid. 7. Ept-
ir þetta sá eg í nætursýn fjórda dýrid, þad
var hrædilegt og ógurlegt og yfirtaks øflugt;
þad hafdi stórar járntennur, át og fundurmuldi,
og tród í fundur med fótunum þad sem þad
leifdi; þad var allt ødruvísi, en øll hin fyrri
dýrin, og hafdi 10 horn. 8. Þegar eg gaf
gjætur ad hornunum, þá tók eg eptir, ad ann-
ad lítid horn spratt upp medal þeirra, og til
þess ad þessi stikill kjæmist fyrir, voru slitin
upp þrjú af hinum fyrri hornunum, þessi stik-
ill hafdi augu, eins og mannsaugu, og munn
þann, sem taladi gudløstunaryrdi (stóryrdi). 9.
Nú sá eg, ad stólar voru settir fram, og hinn
gamli settist nidur, hans klædi voru hvít sem
snjór, og hans høfudhár sem hrein ull; hans
hásæti var eldslogi, og hjólin undir því eldur
brennandi; 10. fram undan honum gékk út fljót-
andi eldstraumur; honum þjónudu þúsundir þús-
unda, og frammi fyrir honum stódu 10 þús-
undir 10 þúsunda, dómendurnir settust nidur, og

bókunum var flett upp. 11. Sídan gjætti eg ad, og sá, ad vegna þeirra stórryrda, sem stikillinn hafdi talad, var dýrid drepid, þess líkami sundurhøggvinn og í brennanda eld kastadur. 12. Vald hinna dýranna var þá og undir lok lidid, því lífid var þeim géfid til þess þad skyldi vara vissan tiltekinn tíma. 13. Í þeim sjónum, sem fyrir mig báru um nóttina, sá eg ad einhvørr kom í skýum himins, líkur mannsins syni; hann kom þángad, sem hinn gamli var fyrir, og var leiddur fram fyrir hann. 14. Honum var géfid vald, heidur og ríki, svo ad honum skyldu þjóna allar þjódir og allir lýdir, hvørrar túngu sem væri; hans vald er eilíft vald, þad skal aldrei undir lok lída, og hans ríki aldrei til grunna gánga.

15. Ut af þessu vard eg Daníel sturladur, og þær sjónir, sem fyrir mig høfdu borid, skélfdu mig. 16. Eg gékk þá til einhvørs af þeim, sem þar stódu, og bad hann segja mér skyn á øllu þessu. Hann taladi til mín, og sagdi mér svofelda skýríngu þess: 17. „þau hin miklu dýrin, sem voru fjøgur alls, þad eru fjøgur ríki, sem hefjast munu á jørdinni; 18. en hinir heiløgu hins hædsta munu eignast ríkid, og halda því eilíflega, frá einni eilífd til annarar". 19. Nú lángadi mig til ad vita einhvørja vissu um fjórda dýrid, sem var svo ólíkt øllum hinum ødrum, mjøg svo ógurlegt, med járntønnum og eirklóm, át og sundurmuldi, og sundurtród med fótunum þad sem þad leifdi; 20. sømuleidis um þau 10 horn, sem voru á høfdi þess, og um hitt hornid, sem þar spratt upp, og undan hvørju þrjú hornin af féllu, um þann stikilinn, sem augun hafdi og þann munn, sem stóryrdi taladi, hvørr stikill var meiri ásýndum, en ønnur horn, sem í kríng voru. 21. Eg hafdi sjed, hvørsu stikill þessi héldt oruslu vid ena heiløgu, og hafdi sigur yfir þeim, 22. þar til hinn gamli kom, og hinir heiløgu ins hædsta fengu ad njóta réttar síns, og sá tími var kominn, ad enir heiløgu skyldu eignast ríkid. 23. Hann sagdi svo: „fjórda dýrid skal vera hid fjórda ríkid á jørdinni, þad skal ólíkt vera øllum ríkjum; þad skal uppsvelgja øll lønd, nidurtroda þau og sundurmerja. 24. Þau 10 hornin merkja þad, ad af þessu ríki munu upp koma 10 Konúngar; en eptir þá mun annar upp rísa, sá mun ólíkur verda hinum fyrri, og hann mun undiroka þrjá Konúnga. 25. Hann mun ord mæla ígégn inum hædsta, kúga ena heiløgu hins hædsta, og hafa í hyggju ad umbreyta tímum og løgum; og þeir munu honum í hendur seldir verda um eina tíd, tvær tídir og hálfa tíd. 26. Þá mun dómurinn settur verda, og honum vikid verda frá vøldum, og ríki hans nidurbrotid verda og undir lok lída. 27. En ríkid, valdid og yfirrádin yfir øllum ríkjum, sem undir himninum eru, munu géfin verda enu heilaga fólki hins hædsta; þess ríki er eilíft ríki, og øll maktarvøld munu því þjóna og undirgéfin verda." 28. Hér er endir þeirrar rædu. Eg Daníel sturladist mjøg af mínum hugsunum, svo ad eg tók litaskipti; þó geymdi eg þessi ord í mínu hjarta.

## 8. Kapituli.

Draumur Daníels um hrútinn og kjarnhafurinn.

1. Á þridja ári ríkis Beltsasars Konúngs, birtist mér Daníel sýn, eptir því sem mér hafdi vitrast í fyrstunni. 2. Þegar eg sá þessa sýn, var eg í borginni Súsan í Elams-héradi, en þá sýnina bar fyrir mig, var eg staddur vid fljótid Ulai. 3. Eg hóf upp mín augu, og leit hrút nokkurn standa fram vid fljótid, hann var tvíhyrndur, og há hornin, og þó annad hærra en annad, og spratt hærra hornid sídar upp. 4. Eg sá hrútinn stánga hornum mót vestri, nordri og sudri; ekkért dýr gat vid honum stadist, og einginn gat frelsad nokkurn und-

an valdi hans; hann gjørdi hvad honum leitst, og lét drembilega. 5. En sem eg gaf betur gjætur ad, sá eg ad kjarnhafur nokkur kom vestan, hann leid yfir alla jørdina, án þess ad koma vid hana; og hafdi sá kjarnhafur stórt horn medal augnanna; 6. hann kom allt ad tvíhyrnda hrútnum, sem eg sá standa fram vid fljótid, og rann á hann í heiptaræði. 7. Eg sá, ad þá hann nálgadist hrútinn, illskadist hann vid hann og stángadi hann, braut bædi horn hans, svo hrúturinn mátti aungri vørn vidkoma; hann fleygdi honum til jardar og trad hann undir, og mátti einginn frelsa hrútinn undan valdi hans. 8. Kjarnhafur þessi lét mjøg drembilega, en þegar því fór hædst fram, brotnadi hornid mikla, en í stad þess spratt upp eitthvad, sem fjøgur horn væri, gégnt þeim fjórum høfudáttum. 9. Ut af einu þeirra spratt dálítid horn, sem vóx ódum móti sudri og austri, og móti því ágjæta landi; 10. það vóx allt upp til himnanna hers, og varpadi nokkuru af hernum, það er stjørnunum, til jardar, og tród þær undir: 11. já, það vóx allt til høfdíngja hersins, svo ad hin daglega fórn var frá honum tekin, og hans helgidóms bústadur nidur rifinn; 12. því fyrir misgjørda sakir var herinn og dagsfórnin seld á vald þess, það lagdi sannleikann ad velli, og hvad sem það gjørdi, hepnadist. 13. Þá heyrdi eg einn heilagan tala, og þessi heilagi mælti til einhvørs, sem spurdi: hvad á hún sér lángan aldur, þessi sýn um hina daglegu fórn, um hina skjædu syndarefsíngu, og um það ad bædi helgidómurinn og herinn skuli seljast í hers hendur til nidurtrodslu? 14. Hann sagdi til mín: það eru 2300 kvøld og morgnar, og þá mun helgidómurinn frelsadur verda.

15. Þegar eg, Daníel, sá þessa sýn, fýsti mig ad vita hvad hún hefdi ad þýda; og sjá! þá stód einhvørr hjá mér, ásýndar líkur manni; 16. og eg heyrdi frá fljótinu Ulaj mannsraust, sem kalladi og sagdi: Gabríel! útskýr þú sýnina fyrir þessum manni! 17. Hann gékk til mín, þar sem eg var staddur; og þá hann kom, vard eg óttasleginn og féll fram á mína ásjónu. En hann sagdi til mín: géf gjætur ad, þú mannsins son! því þessi sýn vidkémur þeim sídustu tímum. 18. Þá hann taladi vid mig, leid eg nidur í ómegin til jardar, fram á ásjónu mína; en hann snart mig, og reisti mig á fætur, svo eg stód. 19. Sídan sagdi hann: sjá! eg vil kunngjøra þér, hvad verda muni í þeim sídasta refsídómi; því vitranin vidkémur hinum sídustu tímum. 20. Hinn tvíhyrndi hrútur, sem þú sást, merkir Konúngana í Medíalandi og Persalandi; 21. hinn lodni kjarnhafur er Grikklands Konúngur, og stóra hornid medal augna hans er hinn fyrsti Konúngur. 22. En þar er hornid brotnadi, og spruttu upp aptur fjøgur í þess stad, það merkir, ad fjøgur ríki munu hefjast af sømu þjód, og þó ekki jafnvoldug sem hann var. 23. Undir endalok þessara Konúngs ríkja, þegar mælir syndanna er fullur ordinn, mun Konúngur nokkurr upp rísa, bædi ósvífinn og hrekkvís; 24. hans styrkur mun vaxa, og þó ekki af eigin þrótt; hann mun á furdulegan hátt øllu eyda, og happadrjúgur verda í því, sem hann tekst á hendur, hann mun ofureflismennina og mannafla enna heiløgu vid velli leggja. 25. Af kjænsku sinni, og af því ad vélabrøgdin heppnast honum, mun hann metnast í sínu hjarta; marga menn mun hann eydileggja, medan þeir eiga sér einskis ótta vonir; hann mun upp rísa móti høfdíngja høfdíngjanna, en þó mun hann loks án manna tilverknadar sundurbrotinn verda. 26. Þessi sýn um kvøldfórnina og morgunfórnina, sem um var talad, hún er sønn; en þú skalt leyna þeirri sýn, því hún á sér lángan aldur. 27. Eg Daníel vard veikur og

sjúkur nokkura stund; þegar eg komst á fætur aptur, þjónadi eg ad erindum Konúngsins, en mjøg var eg óttasleginn af þessari sýn, en þótt einginn yrdi þess varr.

## 9. Kapítuli.

Daníel bidur um frelsun Israelsmanna; fær vitneskju um, hvad fyrir þeim liggi sídar meir.

1. Á fyrsta árinu, þegar Daríus Assverusson af ætt Medíumanna var ordinn konúngur yfir Kaldearíki, 2. á fyrsta ári ríkisstjórnar hans, hugdi eg Daníel ad, í ritníngunni, ad áratølu þeirri, sem Drottinn hafdi opinberad spámanninum Jeremías, ad Jerúsalemsborg skyldi 70 ár í eydi liggja. 3. Eg snéri mér þá til Guds hins alvalda, til ad leita hans í bænum og andvørpum, med føstu, í sekk og øsku. 4. Eg bad til Drottins, míns Guds, gjørdi játníngu mína, og sagdi: æ, þú alvaldi, þú mikli og dásamlegi Gud, sem vardveitir líknarsáttmálann vid þá, sem þig elska og þinna bodorda gæta! 5. Vér høfum syndgad og gjørt órétt; vér høfum breytt ógudlega og verid þér mótsnúnir, og vikid frá þínum bodum og þínu løgmáli; 6. vér hlýddum ekki þínum þjónum, spámønnunum, sem tøludu í þínu nafni til vorra konúnga og landshøfdíngja, til fedra vorra og til alls landsfólksins. 7. Þú, hinn alvaldi, ert réttlátur; en vér megum skammast vor, eins og vér og gjørum á þessum degi, vér og hvørr madur í Júdalandi, innbyggjendur Jerúsalemsborgar, allir Israelsmenn, þeir sem eru nær og fjær í øllum þeim løndum, sem þú hefir burt rekid þá fyrir þeirra misgjørda sakir, sem þeir drýgdu móti þér. 8. Þú alvaldi! vér megum skammast vor, konúngar vorir og landshøfdíngjar og fedur vorir; því ver høfum syndgad móti þér. 9. En hjá þeim alvalda, Gudi vorum, er miskunsemi og fyrirgéfníng, jafnvel þó vér høfum verid honum mótsnúnir, 10. og ekki hlýdt raustu Drottins, vors Guds, sem baud oss ad breyta eptir því løgmáli, sem hann gaf oss fyrir hønd sinna þjóna, spámannanna; 11. já, gjørvallur Israelslýdur hefir yfirtrodid þitt løgmál, og snúid sér í burt, svo hann skuli ekki heyra þína raust; þess vegna er yfir oss komin sú eidfesta bølvan, sem skrifud stendur í løgmáli Mósess, Guds þjóns: því vér høfum syndgad móti Gudi. 12. Hann hefir efnt þad, sem hann hét oss og landstjórnurum vorum, þeim er yfirrád høfdu yfir oss, med því hann lét svo mikla ógjæfu yfir oss koma, ad hvørgi á jardríki hefir slík ógjæfa ordid, sem í Jerúsalemsborg. 13. Eins og skrifad stendur í Mósisløgmáli, er øll þessi ógjæfa yfir oss komin, af því vér ekki beiddum Drottinn, vorn Gud, miskunar, ad vér mættum hverfa frá vorum misgjørdum og géfa gjætur ad hans trúfesti. 14. Þess vegna var Drottinn vakandi yfir því, ad láta ógjæfuna yfir oss koma; því Drottinn, vor Gud, er réttlátur í øllum sínum verkum, þeim er hann gjørir, en vér høfum eigi viljad hlýda hans raustu. 15. Og nú, Gud vor alvaldur, þú sem útleiddir þitt fólk af Egyptalandi med øflugri hendi, og gjørdir þitt nafn dásamlegt eins og þad enn þann dag í dag er; vér høfum syndgad, vér høfum breytt ógudlega. 16. Lát nú, alvaldi Gud, søkum þinnar miklu miskunsemi, þína heiptarreidi hverfa í frá þinni borg, Jerúsalem, og frá þínu heilaga fjalli! Því vegna vorra synda og fyrir misgjørda sakir fedra vorra er Jerúsalem og þitt fólk ordid ad hádúng hjá øllum þeim, sem umhverfis oss búa. 17. Og nú, vor Gud, heyr bæn þíns þjóns, og hans ákallan, og lát þitt auglit lýsa yfir þínum helgidómi, sem nú er í eydi látinn! gjør þad fyrir sjálfs þíns sakir, alvaldi Gud! 18. Hneig eyra þitt, minn Gud, og heyr! upplúk þínum augum, og sjá, hvørsu vér erum í eydi lagdir, og sú borgin, sem eptir þínu nafni er køllud; því vér látum

vort bænarávarp koma fram fyrir þitt auglit, ekki í trausti til vors eigin réttlætis, heldur í trausti til þinnar stóru miskunsemi. 19. Heyr oss, alvaldi Gud! fyrirgéf oss, alvaldi Gud! hygg ad, alvaldi Gud, og veit oss vora bæn! Fyrir sjálfs þíns sakir, minn Gud, þá fresta því ekki! þvíad þín borg og þitt fólk er nefnt eptir þínu nafni.

20. Medan eg enn taladi, og badst fyrir, og játadi mínar syndir og landsmanna minna Israelsmanna, og lét mitt bænarákall, vegna hins heilaga fjalls míns Guds, koma fram fyrir auglit Drottins, Guds míns, — 21. medan eg enn taladi í bæninni, bar þann mann Gabríel, hvørn eg ádur fyrrmeir hafdi sjed í vitran, skyndilega ad þángad, sem eg var, um kvøldfórnar tímann; 22. hann taladi til mín skilmerkilega, og sagdi: Daníel! eg em nú út genginn til ad fræda þig um útþýdínguna; 23. því þegar í upphafi þíns bænarákalls útgékk ordid; og em eg híngad kominn til ad kunngjøra þér þad, því þú ert madur elskuverdur; tak því eptir ordinu, og géf gjætur ad vitraninni. 24. Sjøtýgi sjøundir (ára) eru ákvednar þínu fólki og þinni heiløgu borg, þar til misgjørdin verdi afmád, syndin burttekin, fridþægt fyrir sektina, eilíft réttlæti aptur heimt, vitran spámannsins stadfest, og eitt allrahelgasta vígt. 25. Vit þá og hygg ad: frá þeim tíma ad sú skipun útgengur, ad Jerúsalemsborg skuli uppreist og bygd verda, og allt til þess smurda, til høfdíngjans, eru sjø sjøundir; og tvær og 60 sjøundir (ára); þá munu strætin og borgarveggirnir uppreistir og bygdir verda, þó ad þraungvar tídir sé. 26. En eptir þær 62 sjøundir (ára) mun hinn smurdi afmádur verda og ekki framar á lífi vera; en þjód hins næsta høfdíngja mun borgina og helgidóminn í eydi leggja, hún mun sækja ad, eins og stórflód, og refsidómur eydileggínganna mun vara, uns ófridurinn er á enda. 27. Hann mun gjøra fastan sáttmála vid marga á einni sjøundinni, en ad hálfnadri sjøundinni mun hann aftaka sláturs fórnina og matarfórnina; uppi á musterisbustinni munu standa svivírdíngar eydileggjandans, þar til loksins gjørsamleg eydilegging og refsidómur steypir sér nidur á eydileggjandann.

V. 5. *a.* Ókunnugt hérad, hvar gullnámur hafa verid.

## 10. Kapítuli.

Daníel hughreystur af einum Engli.

1. Á þridja ári Sýrusar Persa Konúngs vard spádómur nokkurr opinberadur Daníeli, sem kalladur var Beltsasar; þessi spádómur er sannur, og bodar stórar þreyngíngar. Hann hugdi ad spádóminum, og fékk skilníng á vitraninni. 2. Á þeim døgum hafdi eg, Daníel, syrgt í þrjár vikur; 3. eg neytti eingrar dýrindis fædu, kjøt og vín kom ekki inn fyrir mínar varir, og eg smurda mig ekki, fyrr enn þær þrjár vikur voru lidnar. 4. En á 24da degi hins fyrsta mánadar, þá eg var staddur á bakka hins mikla fljóts, Tígrisfljótsins, 5. hóf eg upp mín augu og sá, og sjá! þar stód madur nokkurr í línklædum, og hafdi yfir um sig belti úr gulli frá Ufas a). 6. Líkami hans var sem gullsteinn, hans ásjóna sem leiptur, hans augu sem eldslogar, armleggirnir og fæturnar sem skygdur eirmálmur, og rómurinn yfir máli hans sem manngnýr. 7. Eg, Daníel, sá þessa sýn aleinn, en aungvir af þeim mønnum, sem med mér voru, sáu hana, heldur kom yfir þá eitthvørt ofbod, svo þeir flúdu í felur. 8. Eg vard þá einnsaman eptir, og sá þessa hina miklu sýn; en hjá mér var einginn máttur eptir ordinn, minn yfirlitur var til lýta umbreyttur, og eg héldt aungvum styrk eptir. 9. Eg heyrdi málróm hans, og þá eg heyrdi þann

málróm, leid eg í ómegin nidur á mína ásjónu til jardar. 10. Þá snart mig hønd nokkur, og hjálpadi mér óstyrkum upp á knén og lófana. 11. Hann sagdi til mín: ástkjæri Daníel, tak eptir þeim ordum, sem eg tala vid þig: statt á fætur, því eg em einmidt til þín sendur; og sem hann hafdi talad þetta til mín, stód eg upp skjálfandi. 12. Því næst sagdi hann til mín; óttast ekki, Daníel! því frá því fyrst ad þú hneigdir hug þinn til ad ødlast upplýsíngu, og þú lítillættir þig fyrir þínum Gudi, eru þín ord heyrd, og em eg þeirra vegna híngad kominn. 13. Persaríkis høfdíngi (vardengill) stendur í móti mér í 21 dag, en sjá! Mikael, einn af þeim ædstu høfdíngjum (høfudenglum), kémur mér til hjálpar, svo ad mér mun veita betur í vidskiptum vid Konúngana þar í Persalandi; 14. en nú em eg kominn til ad fræda þig á því, sem sídar meir mun fram koma vid landsmenn þína; því einnig þessi vitran á sér lángan aldur. 15. Medan hann taladi þessum ordum til mín, horfdi eg til jardar, og vard ordlaus. 16. En sjá! þá kom einhvørr í mannslíki, og snart varir mínar; lauk eg þá upp munni mínum, og tók til ad mæla, og sagdi til þess, sem frammi fyrir mér stód: „søkum sýnarinnar er megn ótti yfir mig kominn, herra, og minn styrkur er þrotinn. 17. Hvørsu má þessi þinn þjón, herra, mæla vid slíkan sem þú ert, herra? Eins og eg nú er á mig kominn, heldst einginn styrkur vid í mér, og einginn lífsandi er í mér eptir ordinn". 18. Sá, sem í mannslíki var, snart mig þá aptur, styrkti mig, 19. og sagdi: „óttastu eigi, elskumadur! fridur sé med þér! vert øruggur og ókvídinn"! og medan hann taladi vid mig, fann eg styrk í mér, og sagdi: tala þú, herra, því þú hefir mig styrkvan gjørt. 20. Hann mælti: veitstu, hvørs vegna eg em til þín kominn? eg mun brádum aptur hverfa, til þess ad eiga baráttu vid vardengil Persalands, og þegar eg fæ henni lokid, sjá! þá mun koma vardengill Grikklands. 21. Samt vil eg gjøra þér kunnugt, hvad skrifad stendur í sannleikans bók. Og þar er ekki einn einasti, sem veiti mér lid móti þessum (vardenglum), nema Mikael, vardengill ydar.

## 11. Kapituli.

Um nokkura Persa Konúnga, um Alexander mikla, og um deilíngu Grikklandsríkis í fjøgur ríki, eptir dauda Alexanders, 1—4; um vidureign hins Egyptska og Sýrlendska ríkis og ágáng þeirra á Gydínga, 5—20; um herfarir Antíókkus hins gøfga móti Egyptalandi, og hvørsu hann mundi vilja naudga Gydíngum til ad kasta trú sinni, 21—45.

1. „Á fyrsta ári Daríúss frá Medíalandi stód eg honum til styrktar og adstodar. 2. Nú vil eg segja þér sannleikann: sjá! þrír Konúngar a) munu enn koma til ríkis í Persalandi, en hinn fjórdi b) mun audugri verda enn allir adrir, og í trausti til sinnar audlegdar mun hann beita øllum sínum styrk móti Grikklands ríki. 3. Þar eptir mun upp rísa voldugur Konúngur c), hann mun verda vídlendur Konúngur, og til leidar koma því er hann vill. 4. En þegar uppgángur hans er sem mestur, þá mun sundrast ríki hans og skiptast í fjórar áttir, en þó ekki til eptirkomenda hans, og ekki med slíku veldi sem hann hafdi, heldur mun ríki hans afmást, og komast í annara hendur enn þeirra. 5. Konúngurinn í Sudurríki d) mun voldugur verda; þó mun annar af høfudsmønnum hans (Alexanders) verda enn voldugri, og ráda yfir miklu ríki e). 6. Ad nokkurum árum lidnum munu þeir mægjast hvør vid annan; þá mun dóttir f) Konúngsins í Sudurríki gánga ad

V. 2. *a.* Kambýses, Svika = Smerdes, og Darius Hystaspes. *b.* Xerxes. V. 3. *c.* Alexander mikli. V. 5. *d.* Egyptalandi. *e.* Sýrlandi. V. 6. *f.* Bereníka, dóttir Tólómeuss Filadelfuss, Egypta Konúngs.

eiga Konúnginn af Nordurríki a), til þess ad
gjøra frid; en hún mun ekki njóta styrks þess
armleggsins, því hvørki mun hann né afkvæmi
hans lánggjædt verda; hún og þeir, sem hana
høfdu flutt þángad, sonur hennar og þeir, sem
høfdu verid henni til trausts í háskanum, munu
framseldir verda til dráps b). 7. En í stad
hans mun kvistur upp renna af hennar rót-
um c); sá mun koma med lidsafla, og fara
móti virkjum Konúngsins af Nordurríki, gjøra
áhlaup á þau, og hafa sigur; 8. já, hann
mun jafnvel herleida skurdgod þeirra (Sýrlend-
ínga), þeirra steyptu líkneskjur, og dýrindis
kér af gulli og silfri, og flytja þau til E-
gyptalands, og í nokkur ár mun hann reisa rønd
vid Konúnginum af Nordurríki. 9. Sídan
mun þessi d) fara med her inn í ríki Sunn-
manna Konúngs, og aptur hverfa heim í sitt
land. 10. En synir hans munu treysta á
fremsta megn, og draga saman stórmikinn
mannfjølda, og einn af þeim e) mun fram
brjótast, og vada yfir sem árstraumur; hann
mun búa sig ad nýu, og brjótast fram ad kast-
ala hans. 11. Þetta mun sárna Sudurmanna
Konúngi f), og mun hann út fara og halda
hernad vid Nordurríkis Konúng; hann mun kved-
ja upp mikinn mannfjølda, og mun sá her
settur verda undir sjálfs hans herstjórn. 12.
Herinn mun verda stórhuga, og hjarta Kon-
úngsins metnadarfullt, hann mun ad velli legg-
ja 10 þúsundir, og þó ekki ná yfirrádum yfir
landinu; 13. Því Nordurríkis Konúngur mun
enn af nýu saman draga her, miklu meira enn
í fyrra sinni, og ad lidnum nokkurum árum mun
hann fram bruna med fjølmennum lidsafla og
miklum vidbúnadi. 14. Á sama tíma munu
margir rísa í gégn Sudurmanna Konúngi g); og
þeir af landsmønnum þínum, sem eru uppivødslu-
samir, munu þá hefja uppreisn h), til þess vitr-
anin rætist, og þeir hinir sømu munu falla.
15. Nordurríkja Konúngur i) mun nú koma,
hleypa upp jardhrygg, og ná einni víggyrdtri
borg k); því Sudurríkis hermenn munu eingri
mótstødu vid koma, og jafnvel einvala lidid
mun aungvan þrótt hafa til mótvarnar. 16.
Á þessari sinni herferd móti honum l) mun
hann fram fara eptir vild sinni, og einginn
mun fá stadid í móti honum; hann mun fá
fótfestu í hinu ágjæta landinu m) og koma
því til fulls undir sitt vald. 17. Því næst
mun hann hafa þad í rádi, ad koma med gjør-
vøllum styrk síns ríkis; þó mun hann gjøra
frid vid hann, og gipta honum Konúngsdótt-
urina n), til þess ad hún skuli vinna honum
tjón; en þad mun ei framgéngt verda, og ekki
takast honum. 18. Sídan mun hann renna
augum sínum til strandbygdanna, og vinna
margar af þeim; en hershøfdíngi nokkurr o)
mun enda gjøra á hans yfirgángi, já láta smán-
ina lenda á honum sjálfum. 19. Þá mun
hann aptur hverfa til hinna umgyrdtu borga í
sínu eigin landi, en þar mun hann hrasa og
falla, og hans mun eingan stad sjá framar p).
20. Þá mun annar koma í hans stad, sá mun
senda kúgara nokkurn inn í hid veglega rík-
id q); en ad fárra daga fresti mun honum steypt

V. 6. *a.* Antiókus Teus, Sýrlands Konúng, sem rak frá sér fyrri konu sína Laódíku. *b.* Því olli Laódíka med vélum. V. 6. *c.* Tólomeus Evergetes, bródir Bereniku. V. 9. *d.* Nefnil: Selevkus Kallinikus, Sýrlands Konúngur. V. 10. *e.* Antiókus hinn mikli, Kallinikusson; hann vann kastalann Raffia í Egyptalandi. V. 11. *f.* Tólómeus Filopator. V, 14. *g.* Tólómeus Epifanes, sem var barn ad aldri. *h.* Margir Gydingar gengu þá undan Egyptum, og í lid med Sýrlendingum, og Antiókusi mikla. V. 15. *i.* Antiókus mikli. *k.* Sidonsborg. V. 16. *l.* Egyptalands Konúngi. *m.* Þ. e. Gydingalandi. V. 17. *n.* Kleópøtru, dóttur sína. V. 18. *o.* Lúcius Scipió, Rómverskur madur. V. 49. *p.* Antiókus mikli var drepinn í upphlaupi, þar hann kúgadi út fé og rændi godohof innanríkis. V. 20. *q.* Selevcus Filopator, sonur Antiókúss mikla, sendi gjaldkéra sinn Heliódórus til ad ræna musterid í Jerúsalem, 2 Makkab. 3.

verda, þó ekki med ofríki eda í bardaga. 21.
Nú mun í hans stad koma fyrirlitlegur mad-
ur a), hvørjum Konúngstignin ekki var ætlud;
hann mun koma úr þegjanda hljódi og ná undir
sig ríkinu med fagurgala; 22. og herflokkar
flædilandsins b) munu af honum keyrdir í kaf
og sundurkramdir verda, og sømuleidis sam-
bands høfdínginn c). 23. Upp frá því ad
hann hefir bundid félagsskap vid hann, mun hann
beita svikum, færa sig upp á markid, og verda
efri, þótt hann sé fálidadur. 24. Hann mun
brjótast inn í þær ugglausu og frjóssømu lands-
álfur, og þar adhafast þad, sem hvørki fedur
hans, né forfedur høfdu adhafst, sóa rændu
og herteknu fé til manna sinna, og hafa ráda-
gjørdir í hyggju gégn umgyrdtum borgum;
og þessu mun hann fram fara um hríd.
25. Því næst mun hann beita styrk sínum og
hugrekki í gégn Sunnmanna Konúngi d) med
miklum lidsafla; en Sudurríkis Konúngur mun
hefja ófrid vid hann med miklum her og mjøg
víglegum, en þó mun hann ekki fá í móti stad-
id, því honum munu svikrædi búin. 26. Møtu-
nautar hans munu steypa honum, og herlid
hans (Antíókuss) mun yfir geysa, og margur
madur í val falla. 27. Bádir Konúngarnir e)
munu hafa íllt í hyggju hvørr gégn ødrum,
og tala flærdarsamlega ad hinu sama bordi;
en þetta mun þeim ei takast, því endalokin koma
ei fyrr enn á tilteknum tíma. 28. Nú mun
hann hverfa aptur heim í sitt land med miklum
fjárhlut, og snúa hug sínum í móti þeim heilaga
sáttmála, hann mun koma fram áformi sínu,
og hverfa svo aptur heim í sitt land.
29. Á ákvednum tíma mun hann aptur fara
herfør til Sudurríkis, og mun sídari førin ekki
takast jafnvel sem hin fyrri; 30. því skip munu
koma í móti honum frá Kittealandi f), svo
hann mun sjá sitt óvænna og halda heimleidis
aptur; mun hann þá láta heipt sína koma nid-
ur á þeim heilaga sáttmála, og ad því búnu
hverfa aptur. Hann mun hæna ad sér þá,
sem hafna hinum heilaga sáttmála; 31. her-
flokkar hans munu setjast í helgidómsvirkid og
vanhelga þad, aftaka hina daglegu fórn, og
reisa þar vidurstygd eydileggjandans g); 32.
þá, sem sáttmálanum hafna, mun hann med
fagurmælum ad heidíngjum gjøra, en þeir af
fólkinu, sem kannast vilja vid sinn Gud, munu
til sín taka dug og dád, og þeir gudræknu med-
al fólksins munu leidrétta marga. 33. Ad sønnu
munu þeir um stundar sakir falla fyrir sverdi
og báli, af herleidíngum og fjárránum, 34.
en jafnvel þó þeir falli, mun þeim samt veitast
nokkurr lítill styrkur, enn þótt margir fylli flokk
þeirra af yfirdrepskap. 35. Nokkurir af þeim
gudræknu munu falla, svo adrir verdi hreinir,
klárir og skírir allt til enda; því endirinn mun
koma á tilteknum tíma. 36. En Konúngurinn
mun fram fara eptir vild sinni, hann mun láta
stórlega og hefja sig upp yfir hvørn gud, og
afaryrdi mæla í gégn Gudi gudanna; hann
mun happadrjúgur verda, allt þar til reidinni
er lokid, sem verda mun, þegar refsidómurinn
er fram kominn. 37. Hann mun ekki skeyta
gudum fedra sinna, ekki hirda um þad fegursta
gydjulíkneski, né um nokkurn gud, því hann
mun hefja sig upp yfir allt. 38. Nema styr-
jaldar gudinn mun hann heidra, hvar sem
hans líkneski stendur; þann gud, sem fedur
hans hafa ekki þekkt, mun hann veglegan gjøra
med gulli og silfri, med dýrum steinum og

Ve 21. *a.* Antíókus Epífanes (hinn gøfgi). V. 22. *b.* Egyptalands, sem Nil flóir yfir. *c.* Tólómeus Filometor, systurson Antíókuss hins gøfga. V. 25. *d.* Líklega Tólómeus Fyskon, bródir Filometors, sem nokkurir høfdu valid til Konúngs. V. 27. *e.* Tól. Filometor og Ant. Epifanes. V. 30. *f.* Makedónalandi; Rómverjar, sem áttu þenna skipaflota, vísudu Antíókus burt úr Egyptalandi. V. 31. *g.* Heidinn godastalla, sem Antíókus lét reisa uppi á brennifórnar altarinu í musterinu.

gérsemum; 39. þessar gérsemar mun hann germa í víggyrdtum godahofum. Sérhvørjum þeim, sem tekur vid átrúnadi hins útlendska guds, mun hann stórar sæmdir veita, slíka mun hann gjøra ad høfudsmønnum yfir fjølda manns, og skipta landi med þeim til verdlauna. 40. Þegar endirinn nálgast, mun Sudurríkis Konúngur fara med her á hendur honum, en Nordurríkis Konúngur mun þeysast í móti honum med vøgnum, riddurum og miklu skipalidi, og geysa yfir løndin eins og sjáfarflód. 41. Sídan mun hann brjótast inn í hid ágjæta landid, og margir munu falla; þessir munu undan komast undan yfirgángi hans, Edomsmenn, Móabsmenn, og kjarninn af Ammonsmønnum. 42. Hann mun slá hendi sinni yfir løndin, og Egyptaland mun ekki undan honum komast; 43. hann mun kasta eigu sinni á fjársjódu gulls og silfurs og allar gérsemar Egyptalands: og Libyumenn og Blálendíngar munu vera í før med honum. 44. En hersøgur frá austri og nordri munu skélfa hann; mun hann þá í mikilli brædi hefja ferd sína, mørgum mønnum til tjóns og eydileggíngar; 45. hann mun slá landtjaldi sínu milli sjáfarhafanna og helgidómsins veglega fjalls, þar mun hann undir lok lída og aungvan frelsunarmann finna.

## 12. Kapítuli.

Alyktunarord spádómsins.

1. Á þeim tíma mun Mikael høfudengill fram gánga, hann sem er verjandi landsmanna þinna — því þá mun sú hørmúngartíd koma, ad slík mun aldrei verid hafa, frá því ad menn urdu fyrst til og allt til þessara tíma — og á þeim tíma munu landsmenn þínir frelsadir verda, allir þeir sem skrádir finnast á bókinni. 2. Og margir af þeim sem sofa í dupti jardarinnar, munu uppvakna, sumir til ævarandi lífs, sumir til ævarandi skammar og smánar. 3. Þeir trúføstu munu ljóma sem himingeislar, og þeir, sem mørgum hafa vísad á réttan veg, munu skína sem stjørnur um aldur og æfi. 4. Og þú, Daníel, geym spádóminn og innsigla bókina, allt þar til endirinn kémur. Þá munu margir rannsaka hann, og verda vísari hins sanna. 5. Enn fremur sá eg, Daníel, ad tveir adrir menn stódu sínumegin fljótsins hvørr, 6. og sagdi annar þeirra til línklædda mannsins, sem stód fyrir ofan fljótsvøtnin: hvønær mun endir verda á þessum stórmerkjum? 7. Þá heyrdi eg til hins línklædda manns, sem stód fyrir ofan fljótsvøtnin, ad hann hóf upp sína hægri og vinstri hønd til himins, og sór vid þann sem lifir eilíflega: eptir eina tíd, tvær tídir og hálfa tíd a), og þegar sundurdreifíng hins heilaga fólksins er á enda, mun allt þetta fram koma. 8. Eg heyrdi þetta, en skildi þad ekki, og spurdi því: hvørr mun endir á þessu verda? 9. En hann sagdi: gakk, Daníel! því ordin eru apturlukt og innsiglud, þar til endirinn kémur; 10. margir munu verda hreinir, klárir og skírir, en þeir ógudlegu munu tjá sig ógudlega; einginn af þeim ógudlegu mun skilja þetta, en þeir trúræknu munu skilja þad. 11. Frá þeim tíma, ad hin daglega fórn verdur aftekin, og til þess ad svívirdíng eydileggjandans verdur upp reist, munu vera 1290 dagar b). 12. Sæll er sá, sem þolugur þreyr, og nád gétur 1335 døgum. 13. En þú gakk þitt skeid! og þú munt hvíld ødlast, og upp standa til ad medtaka þitt hlutskipti vid endir daganna.

V. 7. *a*. Þ. e. $3\frac{1}{2}$ ár. V. 11. *b*. Sami tími í dagatali, sem í 7. v.

# Spámadurinn Hóseas.

## 1. Kapítuli.

Hóseas lýsir eptirminnilega, hvorsu Gydínga fólk var trygdalaust vid Drottinn sinn, og hvorsu Gud mundi því hegna.

1. Þetta er þad ord, sem Drottinn taladi til Hóseass Berísonar, á døgum Usíass, Jótams, Akass og Esekíass, Júdaríkis konúnga, og á døgum Jeróbóams Jóassonar, Ísraelskonúngs. 2. Upphaf Drottins orda vid Hóseas var þetta: far þú, sagdi Drottinn vid Hóseas, tak til þín hórkonu nokkura og hórbørn, því landid drýgir hórdóm, og er fráſnúid Drottni. 3. Hann fór þá, og tók Gómeru Diblajimsdóttur; hún vard þúngud og fæddi honum son. 4. Þá sagdi Drottinn til hans: kalla þú hann Jísreel a), því innan skamms mun eg hefna blódsektar Jísreels á Jehús-ætt b), og enda gjøra á konúngsríki Ísraelsmanna; 5. og á þeim sama degi vil eg sundurbrjóta boga Ísraelsmanna í Jísreels dal c). 6. Hún vard þúngud í annad sinn, og fæddi dóttur. Þá sagdi Drottinn til hans; kalla þú hana Lóríkømu d); því eg vil ekki framar neina medaumkvun hafa med Ísraelsmønnum, heldur láta þá gjalda sinna misgjørda; 7. en med Júdaríkis mønnum vil eg medaumkvun hafa, og frelsa þá med minni hjálp, sem er Drottinn Gud þeirra, en ekki mun eg frelsa þá med bogum, sverdum, bardøgum, hestum eda riddurum. 8. Þá hún hafdi vanid Ló-rýkømu af brjósti vard hún þúngud og ól son. 9. Og Drottinn sagdi: lát þú hann heita Ló-ammí e), því þér erud ekki mitt fólk, og eg vil ekki vera ydar (Gud).

## 2. Kapítuli.

Hóseas talar um Guds nád 1—3; réttlæti 4—15; og miskunsemi vid Gydínga 16—25.

1. Tala Ísraelsmanna skal verda sem sandur sjáfar, sem ekki verdur mældur og ekki talinn; og á þeim stad, hvar til þeirra var sagt, „þér erud ekki mitt fólk", þar skal til þeirra sagt verda: þér børn ens lifanda Guds! 2. Júdaríkis menn og Ísraels menn skulu allir til samans safnast, velja sér einn yfirmann, og hefja ferd sína upp af landinu f); 3. þá skulud þér kalla ydar brædur Ammí (mitt fólk), og segja til ydar systra: Rýkama (hún er til nádar tekin).

4. Vandid um vid módur ydar g), vandid um vid hana (því hún er nú ekki mín eiginkona, og eg ekki hennar madur), ad hún snúi augum sínum frá lostagirnd, og brjóstum sínum frá hjúskaparspjøllum; 5. svo eg ekki afklædi hana, þar til hún verdur nakin, og láti hana vera fyrir mannasjónum, eins og þann dag er hún fæddist, gjøri hana ad eydimørku og ad vatnslausu landi, og láti hana deya af þorsta, 6. og sjái ekki aumur á børnum hennar; því þau eru hórgétin. 7. Já, módir þeirra drýgir hórdóm; hún, sem gat þau, smánar sjálfa sig! því hún segir: eg vil fylgja ástmønnum mínum, sem géfa mér braud og vatn, ull og hør, vidsmjør og drykk? 8. Þar fyrir, sjá

---

V. 4. *a.* Þ. e. „Drottinn mun tvístra"; þýding nafnanna á ad sýna, til hvørs Gydingar høfdu unnid fyrir ótrygd sína vid Gud. *b.* Konúngsættin, sem þá ríkti í Ísrael. V. 5. *c.* Þ. e. eg vil gjøra Ísraelsmenn uppnæma fyrir óvinum þeirra. V. 6. *d.* Ló-rýkama, þ. e. sú sem aungva medaumkvun verdskuldar. V. 9. *e.* Þ. e. ekki mitt fólk. V. 2. *f.* Úr útlegdinni. V. 4. *g.* Þér Ísraelsmenn, sem viljid vel ydar fødurlandi, setjid þjódinni fyrir sjónir, hvad illt þad sé fyrir land og lýd, ad hún hefir fallid frá sínum Drottni til ad þjóna skurdgodum.

þú! eg gyrdi fyrir veg þinn med þyrnum, og hled þvergard fyrir hann, svo hún finni ekki sína stigu; 9. svo ad, þá hún hleypur eptir ástmønnum sínum og nær þeim ekki, leitar þeirra og finnur ekki, ad hún þá segi: eg vil hverfa aptur til míns fyrsta manns, því þar átti eg betra, en nú á eg. 10. Hún vildi ekki vid þad kannast, ad eg væri sá, sem gæfi henni kornid, þrúgnaløginn og vidsmjørid, og veitti henni gnótt silfurs og gulls, úr hvørju þeir hafa smídad gérsemar handa Baal. 11. Þess vegna vil eg taka aptur mitt korn á uppskérutímanum og minn þrúgnaløg á vínlesturstímanum, eg vil taka aptur mína ull og minn hør, sem hún hefir haft til ad skýla sér med. 12. Nú vil eg gjøra henni opinbera smán í augsýn fylgimanna hennar, og eingi skal fá þrifid hana undan minni hendi. 13. Eg vil enda gjøra á allri hennar gledi, hennar helgidøgum, tunglkomuhátídum, hvíldardøgum og øllum hennar løghátídum. 14. Eg vil í eydi leggja hennar víntré og fíkjutré, þar ed hún segir: þetta eru þau laun, sem ástmenn mínir hafa géfid mér; eg skal gjøra þau ad skógarmørk, svo ad skógardýrin uppeti þau. 15. Þannig vil eg hegna henni fyrir sín hátídahøld til heidurs vid þá Baalsgudi, fyrir hvørjum hún brendi reykelsi, og prýddi sig med nasanistum og hálsmenjum, fylgdi ástmønnum sínum, en gleymdi mér, segir Drottinn.

16. Þess vegna, sjá þú! eg skal lada hana og leida hana út á eydimørku, og telja þar um fyrir henni. 17. Eptir þad vil eg géfa henni hennar víngarda, og Akors dal, þær vonar dyrnar; þar skal hún syngja saungva á víxl, eins og á hennar æskudøgum, eins og þann dag er hún fór út af Egyptalandi. 18. Á þeim degi, segir Drottinn, skaltu til mín kalla: hjartad mitt! þá skaltu ekki framar segja: Baal minn! 19. Því eg vil venja hana af ad hafa nøfn Baalsgoda á vørum sér, svo ekki verdi framar minnst á þau nøfn. 20. Á hinum sama degi vil eg fyrir hønd Ísraelsmanna gjøra fridar sáttmála vid dýr skógarins, fugla himinsins og vid skridkvikindi jardar; bogana, sverdin og hervopnin vil eg sundur brjóta og varpa þeim út af landinu, og láta þá búa þar í fridi. 21. Eg vil festa þig mér til eiginords, eg vil festa þig mér í réttlæti og réttvísi, í líkn og miskunsemi, 22. eg vil festa þig mér í trúfesti, og þú skalt þekkja Drottinn. 23. Á þeim hinum sama degi vil eg bænheyra, segir Drottinn, eg vil bænheyra himininn, og hann skal bænheyra jørdina, 24. jørdin skal bænheyra kornid, þrúgnaløginn og vidsmjørid, og þau skulu bænheyra Jísreel. 25. Eg vil gródursetja hana handa mér í landinu, og miskuna mig yfir Ló-rýkomu; og eg vil segja vid Ló-ammí: þú ert mitt fólk! og hann skal segja: minn Gud!

## 3. Kapituli.

*Hóseas kennir, ad Gud vilji miskuna sig yfir Gydínga, ef þeir snúi sér til hans, og bæti rád sitt.*

1. Drottinn sagdi til mín: far enn, og elska konu þá, er ádur hefir unnt ødrum manni, en gjørt sídan vid hann hjúskaparspjøll; þú skalt unna henni, eins og Drottinn elskar Ísraelsmenn, en þótt þeir hafi augun á hjágudum og séu sólgnir í þrúgnasykur. 2. Eg keypti mér þá konu fyrir 15 sikla silfurs og hálfan annan Gómer byggs, 3. og sagdi til hennar: ver kyrr hjá mér í marga daga, frem ekki hórdóm, og skipt þér ekki af ødrum mønn-

V. 17. Ísraelsmenn fóru Akors dal inn í Kanaansland. V. 24. Jísreel, sjá, 1, 11. V. 25. Ló-rýkama, sjá 1, 6; Ló-ammí, sjá 1, 9. V. 1. Þrúgnasykur: af þrúgnalegi var fyrst tilbúid þrúgnasíróp, þetta var sídan sodid, uns þad hardnadi og vard þá úr því þrúgnasykur, þyntu menn þad aptur og gjørdu úr því sætan, ljúffeingan drykk.

um, þá skal eg líka halda trygd við þig. 4.
Því Ísraelsmenn skulu í marga daga vera án
Konúngs og höfdíngja, án fórnar og líkneskja,
án hökuls og húsgoða. 5. Eptir það skulu
Ísraelsmenn snúa sér og leita Drottins, síns
Guðs, og Davíðs, síns Konúngs; þeir skulu
flýa á náðir Drottins og til hans miskunar á
hinum síðustu tímum.

## 4. Kapítuli.

*Hóseas ávítar Ísraelsmenn um guðleysi og illlifnað, og boðar þeim hegníngu Guðs. Hann varar Júdamenn við að fylgja þeirra vondu dæmum.*

1. Heyrið orð Drottins, þér Ísraelsmenn!
Drottinn hefir sök á hendur (mál að kjæra við)
innbyggjendum landsins, því í landinu finnst
eingi ráðvendni, eingi mannelska, eingi þekkíng á
Guði. 2. Þeir vinna meinsæri, víg, þjófnað
og hórdóm; þeir fara fram með ofríki, og ein
vígsökin tekur við af annari. 3. Fyrir þá sök
drúpir landið, allir þess innbyggjendur eru dapr-
ir, jafnt skógardýrin, sem fuglar himinsins, og
jafnvel fiskar sjáfarins strjúka burt. 4. Til
einskis er að ávíta þá eða vanda um við þá,
því innbúar þínir (Ísraelsland!) eru eins þver-
móðskufullir og kénnimennirnir eru. 5. Þú
munt hrasa á björtum degi, og spámaðurinn,
sem þér fylgir, mun einnig hrasa á nóttunni,
því höfuðborg þína mun eg í eyði leggja. 6.
Mitt fólk glatast af þekkíngarleysi; af því þú
(kénnimaður!) fyrirlítur þekkínguna, þá vil eg
fyrirlíta þig, svo þú skalt eigi minn kénnimaður
vera; og eins og þú (Gyðínga lýður!) gleymir
lögmáli þíns Guðs, eins vil eg og gleyma þín-
um börnum. 7. Þeir syndga móti mér, eins
og þeir eru margir til; þess vegna vil eg gjöra
þeirra vegsemd að smán. 8. Þeir (kénnimenn-
irnir) lifa af syndafórnum míns fólks, og þá
lángar eptir þess misgjörníngum. 9. Þess
vegna skal fara fyrir kénnimönnunum, eins og
fyrir fólkinu; eg skal hegna þeim fyrir þeirra at-
hæfi og gjalda þeim fyrir þeirra verk. 10. Þeir
skulu eta, en þó ekki saddir verða, fremja saur-
lifnað, en þó ekki fjölga, sökum þess að þeir
eru hættir að dýrka Drottinn. 11. Saurlifn-
aður, vín og þrúgnalögur tekur vitið frá manni.
12. Mitt fólk geingur til frétta við trédrumb-
inn, og stafsprotinn veitir því andsvör; því
saurlífis andinn leiðir það afvega, og með sín-
um illlifnaði villist það frá Guði sínum. 13.
Þeir fórnfæra efst á fjallatindunum, brenna
reykélsi á hæðunum, undir eikitrjám, storax-
trjám og terpentín-trjám, af því skuggi þeirra
er ununarfullur. Þess vegna fremja dætur
yðar saurlífi, og mágkonur yðar hórdóm. 14.
Það gagnar ekki, þó eg hegni dætrum yðar,
þá þær fremja saurlífi, eða mágkonum yðar,
þá þær drýgja hórdóm: því þeir gánga sjálfir
afsíðis með hórkonum, og færa fórnir með
hinum ósvífnustu skjækjum; og hin gálausa al-
þýða anar þar eptir.

15. Þó þér, Ísraelsmenn, viljið drýgja
hórdóm, þá láti þó Júdaríkismenn sér hið
sama eigi á verða; farið ekki til Gilgals, og
gángið ekki upp til Betavens, og sverjið ekki:
svo sannarlega sem Drottinn lifir (Amos 8,
14). 16. Því Ísraelslýður er óviðráðanleg-
ur, eins og baldstýrug kviga; nú vill Drottinn
halda þeim á beit, eins og lömbum, á nógu
rúmlendi. 17. Efraim er skurðgoðum háður;
látið hann eiga sig sjálfan! 18. Þegar vín
þeirra er uppgengið, fremja þeir saurlifnað, og
höfdíngjum landsins þykir mjög vænt um
þetta svívyrðilega athæfi. 19. En þegar storm-
urinn hefir handsamað þá með vængjum sínum,
munu þeir skammast sín fyrir sínar fórnfæríngar.

---

V. 15. Gilgal, Jós. 4, 19; gullkálfurinn stóð í Betel (1 Kóng. 12, 29), sem spámaðurinn kallar hér Bet-aven (synda hús). V. 19. Stormurinn með sínum vængjum, þ. e. Assýríu Konúngur.

## 5. Kapítuli.

*Hóseas talar um trygdarleysi Gydínga vid Gud, og um hræsni þeirra, um þá hegníngu, sem Ísraels-mönnum sé vís, og eins Júdaríkis innbúum.*

1. Heyrid þetta, þér kénnimenn! takid ept-
ir, þér Ísraelsmenn! hlusta grandgjæfilega til,
þú Konúngs ætt! því þér egid hegníngu í vænd-
um, fyrir það ad þér vorud sem snara á Mispa,
og sem útþanid net á Tabor. 2. Med slát-
ursfórnum leitast þeir vid ad dylja sínar yfir-
trodslur, en eg skal refsa þeim øllum saman.
3. Eg þekki Efraims-ætt, og Ísraelsmenn dyl-
jast ekki fyrir mér, því þú, Efraims-ætt, lokk-
ar nú adra til saurlifnadar, og Ísraelsmenn
saurga sig. 4. Athafnir þeirra leyfa þeim eigi
ad snúa sér til Guds síns, því saurlífis and-
inn býr í þeirra hjartans grunni, og Drottinn
þekkja þeir ekki. 5. Ósvífnin vitnar í gégn
Ísraelsmønnum; bædi Efraims-ætt og Ísra-
elsmenn skulu falla á misgjørdum sínum, og
eins skulu Júdaríkis menn falla med þeim: 6.
þeir koma med saudfénad sinn og nautpen-
íng til ad leita Drottins, en þeir finna
hann ekki, hann er vikinn frá þeim. 7. Þeir
voru trygdalausir vid Drottinn, því þeir gátu
óskilgétin børn; nú skal vofeifleg ógjæfa eyda
þeim og því sem þeir ega.

8. Þeytid lúdurinn í Gíbea! blásid í bá-
súnur í Rama! æpid heróp í Betaven! Fjand-
madurinn er á hælum þér, Benjamíns ættkvísl.
9. Efraims ættkvísl skal verda ad audn á degi
hegníngarinnar; það, sem eg hefi kunngjørt
Ísraelsmønnum skal fram koma. 10. Júda-
ríkis høfdíngjar eru líkir þeim, sem færa mark-
steina úr stad; eg vil úthella yfir þá reidi
minni, sem árstraumi. 11. Efraimsætt verd-
ur med réttu kúgud og sundurmarin, því hún
breytir eptir sjálfgjørdu løgmáli; 12. eg er sem
mølur í augum Efraimsættar, og sem maur í
augum Júdaríkis manna. 13. Þegar Efra-
imsætt leit á sitt sár, og Júdaríkis menn á
sín sárabønd, þá leitadi Efraimsætt trausts hjá
Assýríumønnum, en hinir gjørdu bod til Ja-
rebs Kóngs; en hann mun eigi fá læknad yd-
ur, og sárabøndin munu eigi af ydur gánga;
14. því eg skal vera Efraimsætt eins og dýrid
óarga, og Júdaríkis mønnum eins og ljóns-
kálfur: eg skal sundur rífa og fara burt med
brádina, og eingi skal géta hripsad hana af
mér. 15. Eg vil gánga þadan, og hverfa
aptur þángad, sem eg var, þar til er þeir
kannast vid sín afbrot og leita míns auglitis;
þegar ad þeim þreyngir, munu þeir leita trausts
hjá mér.

## 6. Kapítuli.

*Hóseas talar um umvendun Gydínga, hversu óein-læg og stadfestulaus hún sé.*

1. „Komid (munu þeir segja), látum oss
aptur hverfa til Drottins! Hann hefir sundur
slitid oss, hann skal og græda oss; hann hefir
slegid oss, hann skal og binda um vor sár; 2.
hann skal lífga oss á tveggja daga fresti, og
reisa oss upp á þridja degi, svo vér skulum
standa lifandi frammi fyrir honum. 3. Látum
oss kannast vid þetta! látum oss kosta kapps
um ad þekkja Drottinn! Sannarlega mun hann
upprenna, sem morgunrodi, og til vor koma, sem
regnskúr, eins og vordøgg, er vøkvar jørdina".
4. Hvad skal eg vid þig gjøra, þú Efraims-
ætt? Hvad skal eg gjøra vid ydur, þér
Júdaríkis menn? Ydar hollusta er sem morg-
unský, eins og døgg, sem snøgglega hverfur.

---

V. 1. Á fjøllunum Mispa og Tabor voru fuglveidar. Meiningin er: fyrir það ad þér leiddud fólkid afvega. V. 8. Gíbea, Rama, borgir í Júdaríki; Betaven sjá 4, 15. V. 10. Þeim sem færa marksteina úr stad, þ. e. stórglæpamønnum, 5 Mós. 27, 17. V. 12. Sem mølur, maur, þ. e. Gydingar virda mitt løgmál einskis.

5. Þess vegna vó eg ad þeim fyrir hønd spámannanna, og banadi þeim med atkvædum míns munns; hvad þú hefir til unnid (Ísraelsríki!), það skal í ljós koma. 6. Því á miskunsemi hefi eg þóknun, en ekki á sláturs-fórn, og gudrækni met eg meir enn brennifórnir. 7. En þeir rjúfa sáttmálan, eins og Adam; hér í eru þeir mér ótrúir. 8. Gílead er glæpamanna bústadur, fullur af blódferlum. 9. Kénnimanna stéttin er eins og ræníngja sveit, sem gjørir mønnum fyrirsátur: þeir myrda menn á veginum til Sikems, því þeir svífast eingra illverka. 10. Mér ofbýdur ad horfa á þær ódádir, sem fram fara í Ísraelsríki: þar fremur Efraimsætt saurlifnad, og Ísraelsmenn eru flekkadir. 11. Einnig þér, Júdaríki, er uppskéra búin.

## 7. Kapítuli.

*Hóseas lýsir gudleysi Ísraelsmanna, flokkadráttum, upphlaupum, aftøkum Konúnga og allskyns ódádum.*

1. Þegar eg fer ad vidrétta hag míns fólks og græda mein Ísraelsmanna, þá munu berir verda glæpir Efraimsættkvíslar og vondskuverk Samaríu: því þeir fara med lygar; þjófar lædast inn í húsin, og ræníngjasveitir brjótast inn á strætin. 2. Samt kémur þeim ekki til hugar, ad eg muni géfa gjætur ad hinni miklu vondsku þeirra; en — nú þyrpast verk þeirra hrínginn í kríng um þá, og standa øndverd fyrir augum mér. 3. Þeir gamna Konúnginum med illverkum sínum, og høfdíngjunum med sínum lygum. 4. Þeir eru allir hórkarlar, (og brenna af girndar bruna) eins og bakstur ofn, sem bakarinn hefir heitan gjørt undir háttatíma, þá hann hefir hnodad og sýrt deigid. 5. Á hátídardegi Konúngs vors gjørast høfdíngjarnir ølódir, og hann sjálfur réttir gárúngunum hønd sína. 6. Þeir snúa huga sínum til launsvika, líkir ofni þeim, sem brennur allt til morguns sem logandi eldur, medan bakarinn sefur alla nóttina. 7. Allir eru þeir eins og kyndtur ofn: þeir fyrirkoma yfirmønnum sínum, allir þeirra Konúngar falla, og einginn af þeim ákallar mig. 8. Efraims-ættkvísl leggur lag sitt vid þjódirnar, hún er lík køku þeirri, sem ekki er snúid á glódinni: 9. útlendir menn eyda hennar styrk, án þess hún géfi því nokkurn gaum; já, þó ad hærur séu sprottnar í høfdi hennar, skeytir hún því ekki. 10. Ofmetnadur Ísraelsmanna vitnar í gégn þeim; samt snúa þeir sér ekki til Drottins Guds síns, allt fyrir það leita þeir hans ekki. 11. Efraimsætt er eins og hérvilluleg, hugsunarlaus dúfa: þeir kalla á Egyptalandsmenn, og fara á fund Assýríumanna. 12. En hvørt sem þeir fara, þá vil eg leggja fyri þá net mitt, og steypa þeim ofan, eins og fugli á flugi; eg vil typta þá, eins og þeim hefir kunngjørt verid í þeirra samkundu. 13. Vei þeim! því þeir flýa fyrir mér; gløtunin er þeim vís, því þeir hafa brugdid trúnadi vid mig. Eg vildi hafa frelsad þá, en þeir mæltu lygar í gégn mér. 14. Þeir ákalla mig ekki af hjarta, þó þeir kveini í rekkjum sínum; það er vegna korns og vínberjalagar ad þeir bera sig aumlega, en mér eru þeir fráhverfir. 15. Hvørt sem eg typta þá eda styrki krapta þeirra, eru þeir mér samt illviljadir. 16. Þeir snúa sér, en ekki í hædirnar: þeir eru eins og bogi, sem fer skakkt. Høfdíngjar þeirra skulu fyrir sverdi falla fyrir reidióma sína; þannig skulu þeir verda til spotts Egyptalandi.

---

V. 5. Vó eg ad þeim, þ. e. eg lét Spámennina kunngjøra þeim reidi mína. V. 8. Gílead, borg og land fyrir handan Jórdan. V. 9. Sikem, gridastadur, Jós. 21, 21. V. 11. Uppskéra, þ. e. endurgjald illverka þinna. V. 16. Egyptalandi, hvar þeir leitudu traustis.

## 8. Kapituli.

Hóseas kénnir, ad Israelsmenn egi eingrar vægdar
von, sokum þeirra afgudadýrkunar og fráfalls
frá Gudi.

1. Set lúdurinn á munn þér! Hann kém-
ur, sem ørn, yfir Drottins hús, søkum þess
þeir rufu minn sáttmála og viku frá mínu løg-
máli. 2. Þá munu þeir kalla til mín: „minn
Gud! vér Israelsmenn gøfgum þig." 3. Is-
raelsmenn hafna hinu góda; óvinurinn skal of-
sækja þá! 4. Þeir vøldu sér Konúnga, án
minna atkvæda, og settu høfdíngja ad mér forn-
spurdum; þeir gjørdu sér godalíkneskjur af því
silfri og gulli, sem þeir áttu, sér sjálfum til
gløtunar. 5. Andstyggilegur er þinn kálfur,
Samaría! Mín reidi er upptendrud móti þeim.
Hve lengi á svo til ad gánga? Þeir hafa
ekkért sér til afbøtunar, 6. kálfurinn er gjørd-
ur af Israelsmønnum, einhvørr hagleiksmadur-
inn hefir búid hann til; hann er ekki neinn gud:
nei, kálfur Samaríu skal klofinn verda í skídur
einar. 7. Af því þeir sá vindi, skulu þeir upp-
skéra storm: kornid dafnar ekki hjá þeim, staung-
in verdur kjarnalaus, og þó hún gefi kjarna,
skulu útlendíngar gleypa hann í sig. 8. Isra-
elsmenn eru uppsvelgdir: þjódirnar meta þá nú
ekki meir en eitthvørt ílát, sem eingi skeytir um;
9. því þeir fara upp til Assýríulands, eins og
skógar-asnar, sem taka sig frá ødrum dýrum;
Efraims ætt kaupir sér ástir. 10. Einmidt
søkum þess ad þeir vilja kaupa sér hylli heid-
íngjanna, vil eg nú þegar safna heidíngjunum
saman á móti þeim; þeir taka nú og til ad
kveina undan áløgum jarla-konúngsins. 11.
Því Efraims ætt fjølgadi blótstøllum til ad
syndgast á, og blótstallarnir urdu henni ad synd.
12. Eg hafdi ritad henni mørg bodord, en þau
eru álitin eins og útlend. 13. Þeim fórnar-
gáfum, sem þeir færa mér, er svo varid, ad
þeir slátra kjøti og eta þad; en Drottinn hef-
ir einga þóknun á því; nei, hann vill minn-
ast illverka þeirra, og hegna þeim fyrir þeirra
syndir: þeir verda ad fara til Egyptalands ad
nýu. 14. Israelsmenn gleyma honum, sem
útvaldi þá, og smída sér hallir; og Júdaríkis
menn fjølga hjá sér víggyrdtum borgum. En
eg skal skjóta eldi í borgir þeirra, og hann skal
eyda þeirra høllum.

## 9. Kapituli.

Hóseas segir fyrir, ad Israelsmenn muni verda her-
leiddir.

1. Ekki þarftu ad gledjast, Israels lýdur,
svo ad þú leikir þér af kjæti, sem adrar þjód-
ir; því med þínum saurlifnadi fjarlægir þú þig
Gudi þínum. Þú hlakkar til kaupgjaldsins á
øllum korn láfum. 2. En hvørki skulu láfar né
vínpressur fæda þá (Israelsmenn), og vínber-
jaløgurinn skal bregdast í landinu. 3. Þeir
skulu ekki búa í landi Drottins; Efraims ætt
skal aptur hverfa til Egyptalands, og í Assýría-
landi skulu þeir eta óhreina fædu. 4. Þeir
skulu ekki géta fórnad Drottni vínfórn, og slát-
ursfórnir þeirra skulu eigi verda honum þókn-
anlegar, þær skulu verda þeim eins og sorgar-
fæda, sú er allir verda óhreinir er af neyta;
því matur þeirra skal vera handa sjálfum þeim,
en ekki koma í Drottins hús. 5. Hvad viljid þér
gjøra á løghelgum og á hátídisdøgum Drott-
ins? 6. Því, sjá þú, þeir skulu skilja vid

Kap. 8. V. 1. Hann, þ. e. óvinurinn Assýriu Konúngur. V. 5. Kálfur, sjá 4, 15. V. 9. Ástir, þ. e. hylli útlendra høfdingja. V. 10. Jarla-Konúngsins, þ. e. Assýriu Konungs. V. 12. Utlend, Israelsmonnum óvidkomandi. V. 13. Ad nýu, eins og forfedur þeirra voru fordum í ánaud í Egyptalandi. Kap. 9. V. 1. Kaupgjald, þ. e. gnótt ávaxta og matvæla, sem hinir blótsiknu Gydingar þokkudu hjágudum sínum, 2, 14. V. 1. 2. Kornláfi, láfi, þreskiflotur, hvar korn er þreskt (barid úr axinu); annad er kornhlada, hvar þad þreskta korn er geymt.

nidurbrotna bústadi: Egyptaland skal safna
þeim, og Móf skal jarda þá. Hvad silfur-gér-
semum þeirra vidvíkur, þá skulu þistlarnir eign-
ast þær, og þyrnar uppvaxa í bústødum þeirra.
7. Hegníngartíminn kémur, endurgjaldstíminn
er í nánd! Þá skulu Ísraelsmenn vidurkénna,
ad spámadurinn var fífl og vísindamadurinn
brjáladur, þar sem misgjørdir þínar (Ísraels
þjód!) voru svo stórar, og spillíngin mikil. 8.
Efraims ætt leitar vefrétta, þó hún egi kost á
ad adspyrja minn Gud; en hvørt sem hún
fer, verdur spámadurinn eins og fuglasnara og
fótakefli í húsi hennar Guds. 9. Þeir eru
gjørspiltir ordnir, eins og á Gíbea tíd (Dóm.
19); þess vegna vill Gud minnast misgjørda
þeirra, og hegna þeirra synda.

10. Eg fann Ísraelsmenn (fordum) eins og
vínber á eydimørku; eg sá ydar fedur, eins og
snemmavaxna fíkju, frumgróda fíkjutrésins; en
þeir gengu til Baalpeors (4 Mós. 25), helg-
udu sig þessu andstyggilega godi, og feldu hug
sinn til ymisra svívirdínga. 11. Ágjæti Efra-
íms ættar skal burtfljúga, sem fugl, svo ad
þar skulu konur ekki fæda, ekki þúngadar verda,
og ekki børn géta; 12. og þó þeir ali upp
børn sín, þar til þau verda fulltída, þá skal
eg þó gjøra þau barnlaus, svo eingi madur
skal af þeim ærlast: því vei þeim einnig, þeg-
ar eg vík frá þeim. 13. Efraims ætt er, eins
og eg sje ad Týrusborg er, gródursett í fagri
landsálfu, en — til þess ad selja børn sín veg-
andanum í hendur. 14. Géf þeim Drottinn!
— hvad skaltu géfa þeim? Géf þeim ófrjóf-
søm módurlíf og mjólkurlaus brjóst! 15. Øll
þeirra vondska framfer í Gilgal (4, 15); þar
hata eg þá. Søkum þeirra vonda athæfis vil
eg hrinda þeim út af mínu húsi, eg gét ekki
elskad þá framar; allir þeirra høfdíngjar eru
þvermódskufullir. 16. Efraims ætt er lostin:
rót þeirra er skrælnud, þeir bera eingan ávøxt;
og þó þeir egi børn, þá vil eg af lífi taka
þeirra eptiræsktu lífsafkvæmi. 17. Minn Gud
mun útskúfa þeim, því þeir hlýda honum ekki,
og fyrir því skulu þeir fara landflótta medal
heidíngjanna.

## 10. Kapítuli.

*Hóseas lýsir enn framar, sidaspillíngu Israelsmanna, segir þeim fyrir, ad þeir skuli herleiddir verda til Assyríu, og ósigursælir í baráttunni vid óvinina.*

1. Ísraelsmenn eru eins og gróskufullur
vínvidur, hvørs ávøxtur líkist sjálfu trénu: ept-
ir því sem ávextir Ísraelsmanna þróudust, ept-
ir því fjølgudu þeir godastøllunum, ad því skapi
sem velmeigun landsins jókst, ad því skapi prýddu
þeir godalíkneskjurnar. 2. Þeirra hjarta er
óheilt. Brádum skulu þeir í eydi lagdir verda:
Drottinn mun umturna godastøllum þeirra, og
eydileggja godalíkneskjur þeirra. 3. Því nú
segja þeir: vér høfum eingan konúng, því Drott-
inn óttumst vér ekki, og hvad gjæti konúngur-
inn þá gjørt oss? 4. Þeir tala hégóma mál;
þegar þeir gjøra sáttmála, sverja þeir mark-
leysu eida; þess vegna mun refsíngin út springa,
eins og eiturjurt upp úr plógførum á akri. 5.
Innbyggjendur Samaríu munu kvídandi verda
út af kálfunum í Betaven, því blótmenn kálfs-
ins munu daprir verda út af honum, og blót-
godarnir, sem léku sér af kæti hans vegna, munu
verda hnuggnir, þegar þessi gérsemi verdur frá
þeim tekin. 6. Því kálfurinn skal einnig verda
burt fluttur til Assyríu, og géfinn Jareb kon-
úngi; þá skal Efraims-ætt skammast sín, og
Ísraelsmenn fyrirverda sig fyrir tiltæki sitt. 7.
Samaría skal í eydi løgd verda, og konúngur
hennar skal verda eins og skipsflak á vatni. 8.
Blóthørgarnir í (Bet-) Aven, hvar Ísraels-

V. 6. Safna þeim, þ. e. þeir skulu allir deya í Egyptalandi; Mós, Memfis, eda Nóf. sbr. Esaj. 19, 13. Jer. 2, 16.
V. 7. Spámadur, lýgispámenn, er leiddu fólkid afvega.

menn syndgudu, skulu nidurbrotnir verda: þyrn-
ar og þistlar skulu upp vaxa á blótstøllum þeirra,
þeir skulu segja til fjallanna, „hyljid oss", og
til hálsanna, „hrynjid yfir oss". 9. Þér, Is-
raelsmenn, hafid drýgt meiri syndir en í Gíbea
tíd (Dóm. 19). Í þad sinn stódust þeir þó,
svo ad ófridurinn vid ójafnadarmennina í Gíb-
ea vard þeim ekki ad meini. 10. Nú vil eg
hegna þeim eptir minni vild, og þjódirnar skulu
samansafnast móti þeim til þess ad hneppa þá
í þrældóm.

11. Efraims-ætt er eins og ardurkvíga, hún
er vøn vid ad þreskja og hefir gaman af því;
en eg skal stíga á hennar ásjálega háls: eg skál
beita Efraim fyrir þreskivagninn, Júda skal
plægja, og Jakob harfa á eptir honum. 12.
Sáid rettlæti, þá munid þér uppskéra miskun-
semi; takid ydur nýtt land til yrkíngar! Þad er
tími til ad leita Drottins, ad hann komi og
uppfrædi ydur í réttlætinu. 13. Þér hafid
plægt nidur gudleysi, uppskorid rángindi og etid
ávexti lýginnar; því þú reiddir þig á þína ráda-
stofnun, og á fjølda hermanna þinna. 14. En
hergnýr mun upp rísa medal þíns fólks, og øll
þín virki munu verda í eydi løgd, eins og í ó-
fridinum, þegar Salman lagdi Bet-Arbel í
eydi, og mædurnar voru rotadar í hel ásamt
med børnunum. 15. Eins mun fyrir ydur
fara, þér Betelsmenn, søkum ydar dæmalausu
vondsku; ad morgni dags skal konúngur Ísra-
elsmanna verda af lífi tekinn.

## 11. Kapítuli.

Hóseas lýsir Guds handleidslu á Gydíngum, þeirra vanþakklæti vid Gud, og þeirri hegníngu, sem þeir áttu í vændum; miskun Guds, ad hann hegnir eigi Gydíngum, nema til þess ad betra þá.

1. Medan Ísraelslýdur var úngur, hafdi eg
hann kjæran, og eg kalladi þenna son minn af
Egyptalandi. 2. En því optar sem til þeirra
var kallad, því heldur snéru þeir sér undan:
Þeir færdu Baalsgodum fórnir og brendu reyk-
elsi fyrir godalíkneskjum. 3. Eg kéndi Efraim
ad gánga, eg héldt um armleggi þeirra; en
þeir vildu ekki vid þad kannast, ad eg væri sá,
sem styrkti þá. 4. Eg leiddi þá í mannlegum
bøndum, eg hafdi á þeim taumhald kjærleikans:
eg fór ad þeim, eins og sá sem lyptir upp ok-
inu, tekur þad fram af gripnum, lýtur nidur ad
honum, og gefur honum fædu. 5. Efraims-
ætt skal ekki aptur hverfa til Egyptalands,
heldur skal Assyríu konúngur vera konúngur
þeirra, fyrst þeir tregdast vid ad snúa sér. 6.
6. Sverdid skal brjótast inn í borgir þeirra,
fella høfudsmenn þeirra, og eyda þeim søkum
þeirra rádabruggs. 7. Því mitt fólk leitar lags
ad falla frá mér; þó því sé sagt ad hefja sig í
hædirnar, þá reisir sig samt einginn upp.

8. Hvørsu skal eg med þig fara, Efraims-
ætt? Á eg ad selja þig í hers hendur, Ísraels
lýdur? á eg ad útleika þig eins og Admaborg,
og fara med þig eins og Sebóimsborg (5 Mós.
29, 23)? Mitt hjarta viknar í mér, og med-
aumkvun tekur til ad hreifa sér hjá mér; 9. eg
vil ekki fram fara eptir minni brennandi reidi,
eg vil ekki snúa mér til ad afmá Efraims ætt:
því eg er Gud, en ekki madur, eins og þínir
líkar: eg er heilagur, og vil því ekki inn í borg-
ina gánga. 10. Þeir munu (sídar meir) fylgja
Drottni, þegar hann kallar med ljónsrøddu; (eins
og ljón øskri); því kalla mun hann, og þá munu
børnin þjóta frá vestri, 11. þau munu þjóta
frá Egyptalandi, sem fuglar, og frá Assyría-
landi, sem dúfur, og þá skal eg fá þeim aptur
hýbýli sín til íbúdar, segir Drottinn.

---

V. 11. Harfa, ad jafna og mylja plægda jørd med tindslóda (herfi). V. 12. Nýtt land, þ. e. yrkid á nýjan stofn, byrjid nýtt og betra liferni! V. 15. Betelsmenn, þ. e. þér Ísraelsmenn, sem blótid gullkálfinn í Betel. V. 10. Børnin, þ. e. þeir af Gydingum, sem høfdu bætt rád sitt, og voru ordnir sønn Gudsbørn.

## 12. Kapítuli.

*Hóseas upphvetur Israelsmenn og Júdaríkis innbyggjendur til trúrækni og stöduglyndis, með því að setja þeim fyrir sjónir eptirdæmi Jakobs, forföðurs þeirra.*

1. Efraims-ætt umkríngdi mig með lygum, og Israelsmenn með svikum, meðan Júdaríkis menn enn þá voru Guði fylgisamir, og héldu sér stöðuglega við hinn allrahelgasta. 2. Efraims-ætt sækist eptir hégómanum og eltir austanvindinn, fer með lygar á degi hvörjum, margfaldar sína ógjæfu, gjörir sáttmála við Assyríumenn, og flytur viðsmjör til Egyptalands. 3. Drottinn hefir og sök á hendur Júdaríkis mönnum. Hann vill hegna Jakobs niðjum eptir þeirra breytni, og endurgjalda þeim eptir þeirra verkum. 4. Jakob héldt um hæl bróður síns í móðurkviði (1 Mós. 25, 26), og glímdi sterklega við Guð, 5. hann glímdi við engilinn (1 Mós. 32), og vann, því hann táraðist og bað hann líknar; hann fann hann í Betel (1 Mós. 28); þar mun hann einnig tala við oss. 6. Drottinn er Guð allsherjar, Drottinn er hans nafn. 7. Snú þér því aptur til þíns Guðs, ástunda miskunsemi og réttlæti, og vona ávallt á þinn Guð. 8. Kananítinn heldur á rángri vog í hendi sér, hann er gjarn á að hafa ránglega af öðrum. 9. En Efraims-ætt segir: eg er auðug orðin, og hefi aflað mér fjár; í aungvum mínum athöfnum skal finnast hjá mér nokkur sú yfirsjón, sem synd sé í. 10. Eg er Drottinn, þinn Guð, (sem leysti þig) af Egyptalandi: híngað til hefi eg látið þig búa í tjaldbúðum, eins og á hátíðisdögum: 11. eg talaði fyrir munn spámannanna, eg fjölgaði sýnum, eg lét spámennina tala í eptirlíkíngum. 12. Allt fyrir það er Gílead (6, 8) bústaður glæpa og eintóms hégóma; í Gilgal eru urar fórnfærðir, já, blótstallar þeirra eru sem steinahrúgur á plægðum akri. 13. Jakob varð að flýa til Sýrlands, og Israel varð að vinna það til kvonfángs sér, að þjóna og vera fjárgeymslumaður. 14. En Drottinn lét spámann nokkurn leiða Israels niðja út af Egyptalandi, og þann hinn sama spámann lét hann gjæta þeirra. 15. Allt fyrir það hefir Efraims ætt skapraunað Drottni sínum sárlega, og þess vegna mun hann láta hennar blóðsekt yfir henni hvíla, og gjalda henni hennar svívirðíngar.

## 13. Kapítuli.

*Hóseas kénnir, að skurðgoðadýrkun og drambsemi Israelsmanna hafi bakað þeim maklega hegníngu Guðs.*

1. Þegar Efraims ætt talaði, stóð Israelsmönnum ógn af henni; en hún glæptist á Baal, og það varð hennar dauðamein. 2. Þeir halda enn áfram að syndga, og gjöra sér steyptar goðalíkneskjur af því silfri, sem þeir eiga; allar þær líkneskjur eru tilbúnar eptir hugviti þeirra, og smíðaðar af hagleiksmönnum. Um þessar líkneskjur segja þeir: hvörr maður, sem færir fórnir, skal kyssa kálfana. 3. Þess vegna skulu þeir verða sem ský á morgni dags, eins og dögg, sem snögglega hverfur, eins og sáðir, sem fjúka af láfanum, eins og reykur upp úr reykháf.

4. Eg er Drottinn, þinn Guð, (sem frelsaði þig) frá Egyptalandi; þú áttir því eingan Guð að játa, nema mig einan, því einginn er hjálpari, nema eg. 5. Eg tók þig að mér í eyðimörkinni, því hinu þurra landinu; 6. þeir fengu saðníng sinn, eins og þá lysti til, en þeg-

V. 5. Þar, í Betel, hvar gullkálfurinn stóð. V. 8. Kananítinn, hinir fenisku kaupmenn voru rángsleitnir og ásælnir; en Efraims ætt, höfuðkynkvísl Israelsríkis, var ekki betri. V. 14. Spámann, Móses. V. 3. Sáðir, kornhýði; láfi, sjá 9, 1. 2.

ar þeir voru saddir ordnir, þá metnadist hjarta
þeirra, og þess vegna gleymdu þeir mér. 7.
Nú skal eg verda þeim eins og ljón, eins og
pardusdýr, sem situr fyrir ferdamønnum; 8.
eg skal mæta þeim eins og birna, sem mist hef-
ir húna sína; eg skal sundurrífa þeirra brjóst
og eta þá þegar í stad, sem ljónsmædra: skóg-
ardýrin skulu sundurrífa þá.

9. Pad verdur þér ad tjóni, Israels lýdur,
ad þú rís í gégn mér, hjálpara þínum. 10.
Hvar er nú Konúngur þinn, ad hann hjálpi
þér í øllum þínum borgum? og dómarar þín-
ir, er þú badst um, þá þú sagdir, „géf mér
Konúng og høfdíngja"? 11. Eg gaf þér Kon-
úng í reidi minni, og í brædi minni tók eg
hann aptur á burt. 12. Misgjørdir Efraims
eru samansafnadar í eitt, hans syndir eru geymd-
ar (Job 14, 17); 13. harmkvæli jódsjúkrar
kvinnu skulu yfir hann koma; hann er heimskt
barn: þó stundin sé komin, kémur hann ekki
fram ad fædíngarstadnum.

14. Eg vildi þó frelsa þá frá heimi myrkr-
anna, og leysa þá frá daudanum; daudi! eg
vildi vera þín drepsótt: myrkra heimur! eg
vildi vera þitt daudamein; en — øll med-
aumkvun víkur frá mér. 15. Pess vegna, þó
hann (Efraim) nú blómgist medal brædra sinna,
skal austanstormur koma, og Drottins vedur
upp stíga af eydimørkinni, þá skulu hans vatns-
lindir þorna, og hans uppsprettubrunnar þrjóta,
og vedrid skal burtu svipta øllum hans grip-
um og gérsemum.

## 14. Kapítuli.

Hóseas brýnir enn fyrir Israelsmønnum, hvør hegn-
íng fyrir þeim liggi fyrir óhollustu þeirra vid
Gud. Spámadurinn leggur þeim ord í munn,
hvørsu þeir skuli leita líknar hjá Gudi, og segir
ad Gud muni miskuna sig yfir þá, ef þeir leiti
hans og betri sig.

1. Samaría er sakfallin, af því hún gjørdi
uppreisn gégn Gudi sínum; þeir skulu því falla
fyrir sverdi, úngbørnum þeirra skal verda slegid
nidur vid, og þúngadar kvinnur hjá þeim skulu
verda sundurhøggnar.

2. Snú þér, Israels lýdur, til Drottins,
Guds þíns, því þú ert á fallanda fæti søkum
misgjørda þinna. 3. Látid ydur eigi ord
skorta, snúid ydur til Drottins, og segid til
hans: „Fyrirgéf allar vorar syndir! vert oss
líknsamur! vér viljum gjalda þér fórnir vara
vorra. 4. Assýríu Konúngur skal ekki hjálpa
oss, vér viljum ekki treysta á riddaralidid, og
ekki framar segja vid verkin vorra handa: þér
erud vorir gudir; því hjá þér finnur hinn fød-
urlausi miskun". 5. Eg vil fyrirgéfa þeim
þeirra drottinssvik (mun Drottinn segja), eg
elska þá gjarna, því mín reidi er vikin frá
þeim. 6. Eg skal vera Israelsmønnum sem
døgg, þeir skulu blómgast sem lilja, og skjóta
rótum sem Líbanonsfjall. 7. Limar þeirra
skulu dreifast vída vegar, toppskrúd þeirra skal
verda sem á vidsmjørstré, og ilmur þeirra
sem Líbanonsfjalls; 8. þeir skulu aptur hverfa
til ad búa í forsælu þess, þeir skulu spretta
upp sem korn, blómgast sem víntré, og verda
eins nafntogadir og vínid frá Líbanonsfjalli.
9. Hvad þarf Efraims kynkvísl framar ad
skipta sér af godalíkneskjum? — eg hefi bæn-
heyrt hana og litid miskunar augum til henn-
ar. Eg er sem laufgrænt furutré: frá mér
skulu þínir ávextir koma.

10. Hvør sem er vís, hann mun hyggja

V. 13. Meiningin er: Efraims ættkvísl skal sæta þýngstu hegningu, þar ed hún er þrálát í hinu vonda og vill eigi end-
urfædast til betra lifnadar. V. 15. Austanstormur, Drottins vedur, þ. e. Assýríu Konúngur, hvørn Gud sendi
til ad framkvæma sinn refsidóm á Gydingum. V. 4. Riddaralidid, nefnil., frá Egyptalandi.

ad þessu; hvørr sem vitur er, mun skilja það; Því vegir Drottins eru réttir: hinir réttlátu gánga á hans vegum, en hinir rángláttu hrasa á þeim.

# Spámadurinn Jóel.

## 1. Kapituli.

*Jóel bodar mikla landplágu af eingisprettum (sem líklega á ad merkja hernad utanríkis óvina), lýsir almennri hormúng landsins, og rædur fólkinu til ad ákalla Gud um hjálp.*

1. Þetta er það ord, sem Drottinn taladi
til Jóels Petúelssonar. 2. Heyrid þetta, þér
høfdíngjar! takid eptir, allir landsins innbyggjendur!
Hefir slíkt nokkrurn tíma til borid á
ydar døgum, eda á døgum fedra ydvarra? 3.
Segid børnum ydar frá því, segi þau aptur
sínum børnum, og þeirra børn sínum nidjum
fram í ættir. 4. Það sem ein eingisprettu
tegundin eptir skilur, það uppetur ønnur; það
sem hún leifir, uppetur hin þridja; það sem sú
leifir, uppetur hin fjórda. 5. Vaknid þér upp,
þér ofdrykkjumenn, og grátid; veinid, allir þér
sem vín drekkid ,vegna vínberjalagarins, því hann
er í burtu tekinn frá ydar munni. 6. Því
voldug og ótøluleg þjód gengur yfir land mitt;
tennur hennar eru sem ljónstennur, og vígtennur
hennar, sem dýrsins óarga; 7. hún
leggur mín víntré í eydi, brýtur mín fíkjutré,
flær allan børk af þeim, og kastar þeim
burt, og greinar þeirra eru hvítar eptir.

8. Kveina þú (Jerúsalem!), eins og sú mey,
sem íklædd sorgarbúníngi grætur unnusta sinn!
9. matarfórn og dreypifórn er burt tekin frá
Drottins húsi; kénnimennirnir, þjónar Drottins,
eru hryggvir; 10. akrarnir eru í eydi: landid
harmar, því kornid er eydt, vínberjaløgurinn
þornadur, vidsmjørid horfid. 11. Akurmennirnir
eru sneyptir, vínyrkjumennirnir kveinandi,
vegna hveitisins og byggsins: því útsjed
er um nokkura uppskéru af akrinum; 12. víntréd
er uppskrælnad, fíkjutréd følnad: granata
tréd, pálmatréd, eplatréd og øll skógartrén eru
uppþornud; þess vegna er øll gledi horfin frá
mannanna børnum. 13. Takid sorgarbúníng
og harmid, þér kénnimenn; kveinid, þér þjónar
altarisins; gángid, þjónar míns Guds, inn
(í forgard musterisins), og verid þar náttlángt,
íklæddir sorgarbúníngi: því matarfórn og
dreypifórn er burt tekin frá húsi ydvars Guds.

14. Haldid føstu, stefnid hátídisfund, kallid
saman høfdíngjana og alla landsins innbyggjendur
í hús Drottins, ydvars Guds, og ákallid
Drottinn: 15. ó, hvílíkur dagur! dagur
Drottins er nálægur! hann mun koma sem
eydilegging frá hinum Almáttuga. 16. Er
ekki fædan á burtu svipt fyrir augum vorum,
og horfin gledi og føgnudur úr húsi vors Guds?
17. Frækornin hjadna undir moldarkékkjunum,
fordabúrin eru eydd, kornhlødurnar nidurrifnar,
því kornid er uppskrælnad. 18. Ó, hvørsu
sképnurnar stynja! nautahjardirnar ráfa ærdar,
af því þær hafa aungva bjørg; saudahjardirnar
þola einnig naud. 19. Eg kalla til þín,
Drottinn, því eldur hefir eydt haglendi eydimerkurinnar,
og logi hefir svidid øll tré skógarins;
20. einnig skógardýrin mæna til þín,

því vatnslindirnar eru uppþornadar, og eldur
hefir eydt grashøgum eydimerkurinnar.

## 2. Kapítuli.

*Jóel afmálar yfirgáng og eydileggíngu eingisprett=
anna; rædur fólkinu af nýu ad leita trausts hjá
Gudi, og fullvissar þad um hans bænheyrslu.*

1. Þeytid lúdurinn á Síonsfjalli! æpid her=
óp á mínu heilaga fjalli! skélfist, allir innbúar
landsíns! því dagur Drottins kémur, hann er
í nánd, 2. hinn myrki og dimmi dagur, hinn
skýadi og skuggalegi dagur. Eins og morg=
unrodi, breidir síg yfir fjøllin stór og voldug
þjód, hvørrar líki ekki hefir verid frá upphafi
veraldar, og mun ekki hér eptir verda um alla
ókomna mannsaldra; 3. fyrir henni fer eyd=
andi eldur, eptir henni logi brennandi: landid
fram undan henni er sem Edensgardur, en á
bak henni sem eydiøræfi; eingi hlutur kémst
undan henni. 4. Ásýndum eru þeir sem hest=
ar ad sjá, og fráir sem riddarar. 5. Þegar
þeir støkkva á fjallatindunum, verdur gnýr, sem
af vøgnum, eda af eldsloga, sem snarkar í
hálmi þeim, er hann brennir; þeir eru eins og
voldug þjód, búin til bardaga. 6. Fyrir þess=
um múg skjálfa þjódirnar, og øll andlit blikna.
7. Þeir hlaupa sem hetjur, stíga upp á borg=
arvegginn, sem hermenn; sérhvørr þeirra geng=
ur beint framm, og víkur ekki af stefnu sinni;
8. eingi þeirra þreyngir ødrum, heldur gengur
hvørr sína braut: þeir falla fyrir sverdum, en
aptra ekki gaungu sinni. 9. Þeir olmast um
borgina, hlaupa á borgarveggnum, stíga upp í
húsin, og fara inn um gluggana, sem þjófar.
10. Jørdin titrar fyrir þeirra ásjónu, himin=
inn skélfur, sól og túngl verda myrk, og stjørn=
urnar apturhalda ljósi sínu. 11. Drottinn upp=
hefur sína (þrumu=) raust fyrir øndverdu lidi
sínu, því herlid hans er ákaflega mikid, og vold=
ugur er sá, sem framkvæmir hans bod; því
stór og ógurlegur er dagur Drottins: hvørr get=
ur afborid hann?

12. Þar fyrir, svo segir Drottinn, snúid
ydur nú til mín af øllu hjarta, med føstum,
gráti og kveini. 13. Sundurrífid ydar hjørtu,
en ekki ydar klædi; snúid ydur til Drottins,
ydvars Guds, því hann er líknsamur, miskun=
samur, þolinmódur, gjædskuríkur og vorkunsam=
ur í mótlætinu. 14. Hvørr veit, nema hann
miskuni síg aptur yfir ydur, og láti blessun
eptir síg, matarfórn og dreypifórn handa Drottni,
Gudi ydrum? 15. Þeytid lúdurinn á Síons=
fjalli, haldid føstu, stefnid hátídis fund, 16.
kallid saman lýdinn, kvedjid þjódfundar, stefn=
id saman høfdíngjum lýdsíns, og úngum børn=
um, og jafnvel brjóstmylkíngum, brúdguminn
gángi út af herbergi sínu, og brúdurin út af
brúdarsalnum. 17. Kénnimennirnir, þjónar
Drottins, standi milli svølugángsíns og altaris=
ins, og segi grátandi: þyrm þínu fólki, Drott=
inn! lát eigi þinn eiginlegan lýd verda ad spotti,
svo heidíngjarnir kvedi um hann hádvísur; því
skal sagt verda medal heidíngjanna: hvar er
nú Gud þeirra?

18. Þá mun Drottinn rétta hlut síns lands,
og vægja sínu fólki. 19. Drottinn mun svara
og segja vid sinn lýd: sjáid, eg sendi ydur
korn, vínberjaløg og vidsmjør, svo ydur skal
nægja til sadníngs; og eg vil eigi láta ydur
hér eptir verda ad spotti medal heidíngjanna.
20. Þeim sæg, sem frá nordri kom, skal eg
støkkva lángt í burt frá ydur, og keyra hann
út á audnir og øræfi, skal fararbroddur hans
lenda í austurhafinu, en halaflokkurinn í vest=
urhafinu; þar skal fýla og illur daun upp af
honum stíga, søkum þess stórrædis, sem hann
hefir í frammi haft. 21. Óttast eigi, (Ísra=
els=) land, ver gladvært og fagna, því Drott=
inn hefir framkvæmt mikla hluti. 22. Óttist eigi,
þér dýr sem lifid á vída vángi, því grashag=

ar eydimerkurinnar grænka; trén bera ávørt,
fíkjutrén og víntrén géfa sinn gróda. 23. Og
þér Síons børn, fagnid og verid glød í Drottni,
Gudi ydrum, því hann géfur ydur regn í hæfi-
legan tíma, og lætur vordøgg og haustregn of-
an til ydar koma, sem fyrrum. 24. Láfarnir
skulu verda fullir af korni, og lagarkérin fljóta
af þrúgnalegi og vidsmjøri. 25. Þá vil eg
bæta ydur upp þau hallærisárin, sem urdu,
þegar eg sendi móti ydur þann hinn mikla her-
skara minn, fernar tegundir eingisprettа. 26.
Þér skulud eta og mettir verda, og lofa nafn
Drottins, ydvars Guds, sem hefir gjørt dásam-
lega hluti ydar á medal; og mitt fólk skal ald-
rei ad eilífu til smánar verda. 27. Og þér
skulud vidurkénna, ad eg er midt á medal Is-
raelsmanna, og ad eg Drottinn er ydar Gud,
en einginn annar, og mitt fólk skal aldrei ad
eilífu til smánar verda.

## 3. Kapituli.

Jóel talar um refsidóm Drottins yfir heidíngjum, um frelsun Gydínga undan valdi óvina þeirra.

1. Hér eptir mun eg úthella mínum anda
yfir allsháttar menn: synir ydar og dætur
skulu spá, ydar øldúnga skal drauma dreyma,
og ydar úngu menn sjá sjónir; 2. og jafnvel yf-
ir þræla og ambáttir skal eg á þeim tímum út-
hella mínum anda. 3. Eg skal láta tákn verda
á himni og á jørdu, blód, eld og reykjarstróka:
4. sólin skal snúast í myrkur, og túnglid í blód,
ádur en kémur hinn mikli og ógurlegi dagur
Drottins. 5. Þá skal sérhvørr, sem ákallar
nafn Drottins, frelstur verda: því á Síons-
fjalli og í Jerúsalemsborg skal hæli finnast,
eins og Drottinn hefir heitid, sem og hjá þeim
er ad rádstøfun Drottins hafa af komist.

6. Því, sjá, á þeim døgum, í þad mund er
eg leidi heim aptur hina herleiddu Júdaríkis
menn og innbyggjendur Jerúsalemsborgar, 7.
þá vil eg samansafna øllum heidíngjum, og
færa þá ofan í Jósafats-dal (dómsdal Guds),
og gánga þar í lagadóm vid þá, søkum þess
þeir dreifdu mínu fólki og mínum útvalda lýd,
Israels lýdi, medal heidíngjanna, skiptu milli
sín landi mínu, 8. køstudu hlutum um mitt
fólk, gáfu únga sveina skjækjum til launa, og
seldu meyar fyrir vín til ad drekka. 9. Og
nú, þú Týrusborg og Sídonsborg og Filista-
land, hvad hafid þér vid mig ad kjæra? Hvørt
viljid þér hefna ydar á mér? Ef þér viljid hefna
ydar á mér, þá skal eg fljótt og skjótlega snúa
ydvarri hefnd á hendur sjálfum ydur, 10. þar
ed þér tókud mitt silfur og gull, og fluttud mín-
ar bestu gérsemar í godahof ydar, 11. seldud
Júdaríkis menn og Jerúsalems menn Grikkjum,
til þess þeir flytti þá lángt í burt frá landa-
merkjum þeirra. 12. Sjáid, eg vil flytja þá
aptur frá þeim stad, sem þér seldud þá, og
snúa hefndinni á hendur sjálfum ydur: 13. eg
skal selja sonu ydar og dætur í hendur Júda-
ríkis mønnum, og þeir skulu selja þau Saba-
mønnum í fjarlægu landi; því Drottinn hefir
svo bodid. 14. Kunngjørid þetta heidíngjun-
um, búid ydur til strids, kvedjid upp kappana;
komi fram allir herfærir menn, og fari í leid-
ángur. 15. Gjørid sverd af ydar plógjárnum,
og spjót af ydar sigdum; hinn vanfæri segi:
eg er hetja! 16. Heimtid ydur saman í flokka!
Komid, allir heidíngjar, sem umhverfis erud,
og safnist saman! — Drottinn, lát þínar hetjur
stíga ofan þángad! 17. Heidíngjarnir skulu
hefja ferd sína og halda upp í Jósafats-dal;
því þar vil eg sitja og láta dóm gánga yfir
alla heidíngja, sem umhverfis eru. 18. Bregd-
id sigdinni! því vínberin eru fullvaxin; komid,
gángid ofan! Trodslukérid er fullt, og lagar-
kérin á barma; því þeirra vondska er stór. 19.

V. 23. Síons børn, innbyggjendur Jerúsalemsborgar.

Flokkarnir þyrpast saman í Dómsdalnum; því
dagur Drottins er nálægur í Dómsdalnum:
20. sól og túngl skulu myrk verda, og stjørn-
urnar apturhalda ljósi sínu: 21 Drottinn skal
kalla med ljónsrøddu frá Síonsfjalli, og hefja
upp sína (þrumu-)raust frá Jerúsalemsborg, svo
himin og jørd skal leika á reidiskjálfti; en Drott-
inn er athvarf síns fólks og vígi Ísraelsmanna.
22. Og þér skulud vidurkénna, ad eg Drottinn,
ydar Gud, bý á Síon, mínu enu helga fjalli;
og Jerúsalemsborg skal heiløg vera, og aungv-
ir útlendir menn skulu framar um hana gánga.
23. Á þeim degi skulu fjøllin drjúpa af vín-
berjalegi, og hálsarnir fljóta í mjólk; allir lækir
í Júdalandi skulu renna vatnsfullir, og vatns-
lind skal framspretta undan húsi Drottins, og
vøkva Sittimsdal. 24. Egyptaland skal verda
ad øræfum, og Edomsland ad óbygdri eydi-
mørku, søkum ofríkis þeirra vid Júdaríkis menn,
er þeir drápu saklausa í landi þeirra; 25. en
Júdaríki skal standa ad eilífu, og Jerúsalems-
borg um aldur og æfi. 26. Þá skal eg láta
hefnt verda þess blóds, sem eg hafda ekki ádur
hefnt; því Drottinn býr á Síonsfjalli.

# Spámadurinn Amos.

## 1. Kapítuli.

Amos lýsir Guds hegníngu yfir Dammaskusborg, Filistum, Týrusborg, Edomsmønnum og Ammonsmønnum.

1. Þessir eru spádómar þeir, er Amos,
fjárhirdir frá Tekóa, spádi um Ísraelsríki á døg-
um Usíass, konúngs í Júdaríki, og á døgum
Jeróbóams Jóassonar, konúngs í Ísraelsríki,
tveimur árum fyrir jardskjálftann (Sak. 14, 5).
2. Hann sagdi: Drottinn mun kalla med ljóns-
røddu af Síonsfjalli, og hefja upp sína (þrumu-)
raust frá Jerúsalemsborg; beitarlønd fjárhird-
aranna skulu sýta, og toppurinn á Karmelsfjalli
skal uppskrælna. 3. Svo segir Drottinn: søk-
um þriggja synda Dammaskusborgar manna
hefi eg ásett mér ad hegna þeim, en søkum hinn-
ar fjórdu skal eg ekki láta hegnínguna undan
gánga: því þeir drógu þreskivagna af járni yfir
Gileads menn. 4. Þess vegna skal eg skjóta
eldi í hús Hasaels, og hann skal eyda høllum
Benhadads. 5. Eg skal brjóta slagbranda
Dammaskusborgar, eg skal eyda innbyggjend-
unum í Avens-dal og þeim sem ber veldis-
sprotann í Beteden, og Sýrlendíngar skulu her-
leiddir verda til Kírlands, segir Drottinn.

6. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda
Gasaborgar manna hefi eg ásett mér ad hegna
þeim, en søkum hinnar fjórdu vil eg eigi láta
hegnínguna undangánga, fyrir þad ad þeir her-
leiddu fridsama þjód, til þess ad selja hana í
hendur Edomsmønnum. 7. Þess vegna skal
eg skjóta eldi í múrvegg Gasaborgar, og hann
skal eyda hennar høllum; 8. eg skal eyda inn-
búum Asdodsborgar, og þeim sem ber veldis-
sprotann í Askalonsborg; eg skal snúa hendi
minni í gégn Ekronsborg, og þeir, sem eptir

V. 3. Søkum þriggja synda — søkum hinnar fjórdu (syndar), ákvedin tala í stadin fyrir óákvedna; meiningin er: af því borgarmennirnir hafa optlega syndgad og ekki viljad af láta, þá vill Gud ekki leingur þola þeim slíkan syndsamlegan lifnad óhegndan.

eru af Filistum, skulu undir lok líða, segir Drottinn alvaldur.

9. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda Tyrusborgar manna hefi eg ásett mér að hegna þeim, en søkum hinnar fjórðu skal eg eigi láta hegnínguna undangánga, af því þeir seldu friðsama menn, sem þeir høfðu hertekið, í hendur Edomsmønnum, án þess að muna til þess, að þeir høfðu gjørt við þá vináttusáttmál. 10. Þess vegna skal eg eldi skjóta í múrvegg Tyrusborgar, og hann skal eyða hennar høllum.

11. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda Edomsmanna hefi eg ásett mér að hegna þeim, en søkum hinnar fjórðu skal eg ekki láta hegnínguna undangánga, af því þeir ofsækja bræður sína með sverði án allrar meðaumkvunar, af því þeir sundurrífa æ og æ í reiði sinni, og geyma heipt sína æfinlega. 12. Þess vegna skal eg skjóta eldi í Temansborg, og hann skal eyða høllum Bozraborgar.

13. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda Ammonsmanna hefi eg ásett mér að hegna þeim, en søkum hinnar fjórðu skal eg ekki láta hegnínguna undangánga, af því þeir kviðristu óléttar konur í Gílead, til þess að færa út landamerki sín. 14. Þess vegna skal eg kveykja eld í múrvegg Rabbaborgar, og hann skal eyða hennar høllum, þegar herópið verðar æpt á degi styrjaldarinnar, þegar stormurinn geisar á degi fellibyljanna; 15. og Malkom (Jer. 49, 1. 3: Seff. 1, 5) skal úr landi herleiddur verða, og høfðíngjar hans með honum, segir Drottinn.

## 2. Kapítuli.

*Amos boðar Móabsmønnum, Júdaríkismønnum og Ísraelsmønnum hegníngu Guðs.*

1. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda Móabsmanna hefi eg ásett mér að hegna þeim, en søkum hinnar fjórðu vil eg eigi láta hegnínguna undangánga, því þeir brendu bein Edomsmanna Konúngs að kalki (2 Kóng. 3, 27). 2. Þess vegna skal eg skjóta eldi á Móabsland, og hann skal eyða høllum Kirjotsborgar, og Móabsmenn skulu deya í vopnagný, undir herópi og lúðragángi. 3. Eg skal afmá landstjórnarann, og af lífi taka alla landsins høfðíngja ásamt honum, segir Drottinn.

4. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda Júdaríkismanna hefi eg ásett mér að hegna þeim, en søkum hinnar fjórðu vil eg eigi láta hegnínguna undangánga, fyrir því að þeir hafa fyrirlitið løgmál Drottins og ekki gjætt hans boðorða, heldur látið þann hégóma villa sig, er forfeður þeirra gengu eptir. 5. Þess vegna vil eg varpa eldi á Júdaland, og sá eldur skal eyða høllum Jerúsalemsborgar.

6. Svo segir Drottinn: søkum þriggja synda Ísraelsmanna hefi eg ásett mér að hegna þeim, en søkum hinnar fjórðu skal eg eigi láta hegnínguna undangánga; því þeir selja hinn saklausa fyrir silfur, og hinn fátæka fyrir eina skó. 7. Þeir fíkjast í lítinn jarðarblett, þó líf fátæks manns sé í veði, og halla rétti aumíngjans; faðir og sonur gánga til sømu kvennsniptar, til að vanhelga mitt heilaga nafn. 8. Þeir liggja á veðteknum klæðum hjá sérhvørjum goðastalla, og drekka vín sektaðra manna í goðahúsum sínum. 9. Og þó rudda eg Amorítum úr vegi þeirra, er svo voru hávir sem sedrustré, og svo sterkir sem eikitré; eg eyddi ávøxtum þeirra að ofanverðu, og rótum þeirra að neðan. 10. Eg færði yður út af Egyptalandi, leiðbeindi yður um 40 ár í eyðimørkinni, svo þér mættuð eignast Amorítaland; 11. eg uppvakti spámenn meðal sona yðvarra, og heitbræður (4 Mós. 6, 2) meðal yðar æskumanna. Er þetta eigi svo, Ísraelsmenn? segir Drottinn. 12. En þér gáfuð heitbræðrunum vín að drekka, og buðuð spámønnunum og

søgdud, „þér megid ekki spá". 13. Sjá, eg
skal þrýsta ydur nidur, eins og sá vagn þrýst-
ir, sem hladinn er kornkerfum; 14. sá, sem er
léttur á sér, skal ekkért undanfæri hafa: sá,
sem sterkur er, skal ekki fá neytt krapta sínna,
og kappinn skal ekki forda mega fjørvi sínu;
15. bogmadurinn skal ekki fá stadist, hinn fót-
hvati skal eigi fá undankomist, og riddarinn
skal ekki bjarga mega lífi sínu: 16. hinn hug-
djarfasti kappi skal á þeim degi nakin í burtu
flýa, segir Drottinn.

## 3. Kapítuli.

Amos sýnir, ad hegníng var naudsýnleg og óumflý-
anleg.

1. Heyrid þetta ord, sem Drottinn talar
gégn ydur, Ísraelsmenn, gégn øllum þeim kyn-
kvíslum, er eg útleiddi af Egyptalandi, segjandi:
2. Sannarlega hefi eg látid mér annt um ydur
fremur øllum kynkvíslum jardarinnar; þess
vegna vil eg hegna ydur fyrir allar ydar mis-
gjørdir. 3. Megu tveir menn verda samferda,
nema þeir mæli sér mót? 4. Mun ljónid øsk-
ra í skóginum, ef þad sjer aungva brád? Mun
ljónskálfurinn láta til sín heyra í bæli sínu,
ef hann hefir eingu nád? 5. Getur fuglinn
komid í snøruna á jørdinni, ef eingi snara er
fyrir hann løgd? Mun snaran verda upp tek-
in af jørdunni, ef ekkért hefir í hana fengist?
6. Verdur nokkud lúdur svo þeyttur innan borg-
ar, ad fólkinu skjóti eigi skélk í bríngu? Vill
nokkurt andstreymi til í borginni, ad Drottinn
ekki láti þad ad hendi bera? 7. En Drottinn
alvaldur gjørir ekkért, nema hann kunngjøri sinn
leyndardóm fyrir sínum þjónum, spámønnunum.
8. Ljónid øskrar; hvørr skyldi ekki óttast? Drott-
inn hinn alvaldi talar; hvørr skyldi ekki spá?
9. Birtid þann bodskap í høllunum í As-
dodsborg og í høllum Egyptalands og segid:
„safnist saman upp á Samaríuføll, og lítid á
hina miklu styrjøld midt í stadnum, og á hina
undirkúgudu innan borgar". 10. Þeir hirda
ekki um ad gjøra hvad rétt er, segir Drottinn,
heldur hlada saman ofríki og kúgunum í høll-
um sínum. 11. Þar fyrir segir Drottinn al-
valdur: fjandmenn skulu umkríngja landid á
alla vegu, taka frá þér styrk þinn, og þínar
hallir skulu rændar verda. 12. Svo segir Drott-
inn: eins og hirdirinn þrífur tvø læri eda snep-
il af eyra úr munni ljónsins, eins skulu þeir
Ísraelsmenn, er í Samaríu búa, forda sér í
bekkjarhorni og í silki-rúmblæum. 13. Heyr-
id og verid vottar til þessa, þér Jakobs nid-
jar, segir Drottinn alvaldur, Gud allsherjar:
14. þann dag er eg hegni Ísraelsmønnum fyr-
ir misgjørdir þeirra, vil eg láta hegnínguna
koma nidur á godastøllunum í Betel (Hós. 4,
15); hornin upp af godastallanum skulu verda
af brotin, og falla til jardar. 15. Eg skal
nidurbrjóta vetrarhallirnar ásamt med sumar-
høllunum, fílabeinshallirnar skulu hverfa, og
mørg hús til grunna gánga, segir Drottinn.

## 4. Kapítuli.

Hegníng dramblátra kvenna; illar afleidíngar skurd-
goda dýrkunarinnar.

1. Heyrid þetta ord, þér Basans kvígur,
sem erud á Samaríu fjalli! þér, sem kúgid
aumíngjana, undirokid hinn fátæka, og segid
til lávarda ydvarra: ber híngad, svo vér meg-
um drekka! 2 Drottinn hinn alvaldi sver vid
sinn heilagleik: Sjáid, þeir dagar munu yfir
ydur koma, ad sumar af ydur skulu verda burtu
færdar med krókstjøkum, og hinar med siski-
aunglum; 3. þér skulud út fara út um vig-

V. 1 Basans kvígur kallar spámadurinn hinar sællifu høfdíngja konur i Samaríu, er lokkudu menn sina til hard-
ydgi vid undirmenn þeirra.

skördin, hvör beint sem horfir, og keyrdar verda
í kvennabúr, segir Drottinn.
4. Gángid til Betels, og syndgid þar!
Margfaldid syndina í Gilgal, og framberid yd-
ar fórnir á morgni hvörjum, og ydar tíundir
þridja hvört ár! 5. Tendrid reykélsis fórnir
af rángfengnu fé í þakkarfórn! Auglýsid sjálf-
viljugar fórnir, gjörid þær heyrum kunnar!
því þad er ydar yndi, Israelsmanna, segir
Drottinn alvaldur. 6. Einmidt vegna þessa
hefi eg látid verda sult og seyru í öllum ydar
borgum, og matarskort í öllum ydar bústödum;
og þó hafid þér ekki snúid ydur til mín, seg-
ir Drottinn. 7. Eg synjadi ydur um regn í
þrjá mánudi fyrir uppskérutímann; eg lét rigna
í einni borg, en ekki í annari; eitt bygdarlag
vökvadist af regni, en annad bygdarlag skræln-
adi, af því þar kom ekkért regn. 8. Tvær eda
þrjár borgir fóru til einnar borgar, til ad fá
sér vatn, en fengu þó ekki nóg; og þó snérud þér
ydur ekki til mín, segir Drottinn. 9. Eg sendi ydur
þá plágu, ad kornid svidnadi og gulnadi; eingi-
sprettur uppátu flesta ydar aldingarda og vín-
garda, fíkjutré og vidsmjörstré: og þó snérud þér
ydur ekki til mín, segir Drottinn. 10. Eg senda
ydur drepsótt frá Egyptalandi; eg sló æskumenn
ydar í hel med sverdi, sem og hesta ydar, er eg
hafda herteкid, og lét hrævadauninn af ydar
(fallna) herlidi upp stíga, og brá honum fyr-
ir vit ydur: og þó snérud þér ydur ekki til
mín, segir Drottinn. 11. Eg gjördi eydilegg-
íngar ydar á medal, líkar þeirri eydileggíng,
sem Gud lét gánga yfir Sódómu og Gómorru;
þér vorud eins og brandur úr báli dreginn,
og þó snérud þér ydur ekki til mín, segir Drott-
inn. 12. Þess vegna vil eg nú eins med yd-
ur fara, Israelsmenn; og sökum þess eg hefi
ásett mér ad fara svo med ydur, þá verid nú
til taks, Israelsmenn, ad mæta ydar Gudi.
13. Því sjáid, hann er sá sem myndar fjöllin
og skapar vindinn; hann kunngjörir mannin-
um, hvör sín hugsun sé; hann gjörir dagsljós-
id ad myrkri, og gengur á hædum jardarinnar:
Drottinn, Gud allsherjar, er hans nafn.

## 5. Kapítuli.

Amos afmálar þá ógjæfu, sem lá fyrir Israelsmönn-
um; upphvetur þá til réttvísi; varar þá vid hjá-
gudadýrkun.

1. Heyrid þetta ord, sem eg mæli vid yd-
ur, Israelsmenn! þad er harmakvædi. 2. Is-
raels júngfrú er fallin, og stendur ekki upp
framar; henni er varpad til jardar, og eingi
reisir hana á fætur. 3. Því svo segir Drott-
inn alvaldur: sú borg, sem sendi frá sér 1000
manns, skal hafa eptir 100, og sú sem sendi
100, skal hafa 10 eptir handa Israels þjód.
4. Svo segir Drottinn til Israelsmanna:
leitid mín, og munud þér lifa! 5. Leitid ekki
til Betels! komid eigi til Gilgals! farid ekki til
Berseba! því Gilgal skal herleidt verda, og
Betel verda ad audn. 6. Leitid Drottins, og
munud þér lifa! Ella mun hann yfirfalla Jó-
seps ætt, sem eldur, og sá eldur skal eyda henni,
og einginn í Betel skal fá þann eld slöktan. 7.
Þér, sem umhverfid lagaréttinum í ólyfjan, og
varpid réttvísinni til jardar, 8. leitid hans, sem
sköp sjöstjörnuna og Orion; sem gjörir nid-
myrkur ad björtum morgni, og dag ad dimmri
nótt; sem kallar til sjáfarvatnsins, og eys því
yfir jördina: Drottinn er hans nafn; 9. hans,
sem lætur tjónid upp renna yfir hinn volduga,
svo ad eydileggíng kémur yfir víggyrdta stadi.
10. Þegar þeir eru á þíngum, hata þeir þann
sem dæmir, og hafa vidbjód á þeim, sem tal-
ar satt. 11. Þess vegna, sökum þess þér fót-

V. 2. Israels júngfrú, þ. e. Israelsríki. V. 6. Jóseps ætt þ. e. Efraims ætt, adal ættkvísl Israelsríkis. V. 8. Orion, stjörnuflokkur, er svo heitir; í honum er Orionsbelti (Fjósakonurnar) og Orionssverd (Fjósakarlarnir).

trodid lítilmagnann, og kúgid af honum kornskatt, þá hafid þér bygt ydur hús af høggnum steinum, en þér skulud ekki í þeim búa; þér hafid plantad lystilega víngarda, en þér skulud ekki drekka vínid, sem kémur af þeim: 12. Því eg veit, ad ydar misgjørdir eru miklar, og ydar syndir margar. Þeir þraungva hinum saklausa, þiggja mútu, og halla rétti fátækra manna á þíngum. 13. Þess vegna, hvørr sem á þessum tíma er hygginn, sá þegir; því þessi tími er vondur. 14. Leitid hins góda, en eigi hins illa, svo þér megid lifa! þá mun Drottinn, Gud allsherjar, vera med ydur, eins og þér nú hrósid. 15. Hatid hid vonda, og elskid hid góda, og eflid løg og réttindi á þíngum; þá mun Drottinn, Gud allsherjar, miskuna sig yfir þá, sem enn eru eptir af Jóseps ætt.

16. En sannarlega — svo segir Drottinn, Gud allsherjar, hinn Alvaldi — á øllum torgum skal heyrast harmakvein, og á øllum strætum skal sagt verda, „vei, vei"!"; menn skulu kalla akurmanninn til sorgarhátída, og bjóda þángad hvørjum sem kann harmakvædi; 17. og í øllum víngørdum skal harmakvein heyrast, þegar eg fer í gégnum land þitt, segir Drottinn. 18. Vei þeim, sem óska, ad hegníngardagur Drottins komi! Hví skulud þér æskja hegníngardags Drottins? Hann er dimmur, en ekki bjartur. 19. Eins og ef madur flýdi undan ljóni, en yrdi þá á degi fyrir bjarndýri, kjæmist þó heim og styddi hendi sinni vid húsvegginn, en þá biti høggormur hann: 20. er ekki (á líkan hátt) reididagur Drottins dimmur, en ekki bjartur? jú, myrkur er hann, og án nokkurrar ljóssglætu. 21. Eg hata, eg fyrirlít ydar helgidaga, og hefi einga velþóknun á ydar hátídasamkomum. 22. Þó þér fórnid mér brennifórnum og matarfórnum, þá þóknast mér þær ekki, og eg vil ekki líta vid þakkarfórnum af ydar alifé. 23. Burt frá mér med glauminn ydvarra saungva! Eg vil ekki heyra hljóminn ydvarra harpna. 24. Látid heldur réttinn framfljóta sem vatn, og réttlætid sem sírennanda straum. 25. Var þad mér til heidurs (dýrdar), Israelsmenn, ad þér færdud brennifórnir og matarfórnir þau 40 ár, sem þér vorud í eydimørkinni? 26. Nei! þér bárud tjald ydvars Móloks, og Kíún, ydar líkneski, stjørnu ydvars Guds, er þér høfdud gjørt ydur. 27. Eg vil því flytja ydur í útlegd yfir fyrir Dammaskusborg, segir Drottinn, Gud allsherjar; þad er hans nafn.

## 6. Kapítuli.

*Amos hótar Israelsmonnum hegníngu Guds fyrir þeirra rángsleitni, sællífi og ofmetnad.*

1. Vei hinum andvaralausu á Síonsfjalli, og hinum grannlausu á Samaríufjalli, høfdíngjum hinnar ágjætustu þjódar, hjá hvørjum Israelsmenn halda samkomur sínar. 2. Farid yfir til Kalneborgar, og litist um! Gángid þadan til Hemats, hinnar miklu borgar! Farid ofan þadan til Gatsborgar í Filistalandi! Eru þær voldugri, en þessi ríki? Eru landamerki þeirra stærri, en ydar landamerki? 3. Vei ydur, sem haldid ad hegníngardagurinn sé hvørgi nærri, og flýtid komu hans med rángsnúnum dómum: 4. sem sofid á legubekkjum af filsbeini, og liggid flatir í hvílurúmum ydrum, etid feit lømb af saudahjørdinni, og alikálfa úr stíunni: 5. sem sýngid undir med hørpunni, og finnid upp hljódfæri, sem Davíd: 6. drekkid vín af bikurum (skaptkérum), smyrjid ydur med dýrasta vidsmjøri, án þess tjón Jósepsættar renni ydur til rifja. 7. Þessa vegna skulu þeir brádum herleiddir verda á undan ødrum útlegdar mønnum, og þá skal fagnadaróp sælkéranna þagna.

V. 26. Kíún halda menn sé sú reikandi stjarna, er kallast Satúrnus.

8. Drottinn alvaldur hefir svarid vid sjálfan
sig, segir Drottinn, Gud allsherjar: eg hefi
vidbjód á ofmetnadi Jakobsættar; eg hata
hennar hallir; eg vil selja borgina, og allt sem
innan borgar er, í hers hendur. 9. Þá mun
svo fara, ad verdi tíu menn eptir í einu húsi,
þá skulu þeir allir deya; 10. og þegar ein-
hvørr ættíngi eda líkbrennumadur tekur upp
beinin, til ad færa þau út af húsinu, og spyr
einhvørn, sem liggur í afkyma húsins: „eru
nokkurir fleiri hjá þér?“ Þá mun sá svara:
„einginn!“ Þá mun hinn segja: „haf hljódt
um þig! því hér er eigi stadur til ad lofa nafn
Drottins“. 11. Því sjá! Drottinn býdur,
og þegar mun (óvinurinn) ljósta hid meira
húsid, svo þad skal hrynja, og hid minna hús-
id, svo þad skal rifna. 12. Géta hestar hlaup-
id á klettum, eda erja menn þar med uxum?
Því þér umhverfid lagaréttinum í eitur, og á-
vøxtum réttvísinnar í ólyfjan: 13. þér gled-
jist yfir því sem ekkért er, og segid: hefir oss
ekki varid styrkur søkum hardfengi vorrar?
14. Því sjáid! eg vil hefja eina þjód móti
ydur, Israelsmenn, segir Drottinn, Gud alls-
herjar, og sú þjód skal bægja ydur frá Ham-
atsborg og allt ad læknum á sléttlendinu,
(1 Kóng. 8, 65).

## 7. Kapítuli.

Amos spáir Israelsmønnum eydileggíngu, og jafn-
vel Konúngsættinni; þá ákjærir Amasía hann,
og bannar honum ad spá.

1. Drottinn, hinn Alvaldi, lét mig sjá þessa
sýn: Sjá, hann bjó til eingisprettur, í þad
mund ad háin tók til ad spretta, eptir þad ad
Konúngur hafdi látid slá akra sína. 2. En
er þær høfdu med øllu afetid grasid af jørd-
unni, sagdi eg: Drottinn alvaldi, eg bid, fyr-
irgéf! Hvørsu má Jakobs ætt standast? því
hún má sér lítid. 3. Þá idradi Drottinn þessa;
„þad skal ekki vera“, sagdi Drottinn. 4. Drott-
inn alvaldur lét mig enn sjá þessa sýn: Sjá,
Drottinn, hinn alvaldi, kalladi á eldinn til
hegníngar þeim, og eldurinn uppsvalg stór vøtn
og eyddi landinu. 5. Þá sagdi eg: eg bid,
Drottinn alvaldur, lát af! Hvørsu má Jakobs
ætt standast, þar sem hún er svo vanmegn?
6. Þá idradi Drottinn þessa; „þetta skal ekki
heldur vera“, sagdi Drottinn alvaldur. 7. Og
enn lét hann mig sjá sýn: Sjá, hinn alvaldi
stód uppi á þrádréttum múrvegg, og héldt á
mæliþrædi. 8. Drottinn sagdi til mín: hvad
sjer þú, Amos? Eg svaradi: mæliþrád. Þá
sagdi hinn Alvaldi: sjá þú, eg legg mæliþrád
midt á medal míns fólks, Israelslýds; eg vil
ekki lengur vægja honum. 9. Hørgar Isaksnidja
skulu í eydi lagdir verda, og helgistadir Isra-
elsmanna audir standa; eg vil rísa í gégn Jeró-
bóams ætt med reiddu sverdi.

10. Þá sendi Amasía, kénnimadur í Betel,
til Jeróbóams, Israelsmanna Konúngs, og lét
segja: Amos hefir gjørt samsæri móti þér, midt
á medal Israelslýds; landid gétur eigi þolad
øll hans ord; 11. því Amos hefir svo til
orda tekid: „Jeróbóam skal fyrir sverdi falla
og Israelsmenn skulu verda herleiddir og flutt-
ir burt úr landi þeirra“. 12. Þá sagdi Am-
asía til Amos: far á burt, þú spámadur, flý
til Júdalands, haldt þér þar uppi og spá þar;
13. en í Betel máttu ekki spá framar, því þar
er helgistadur Konúngsins og høfudstadur ríkis-
ins. 14. Amos svaradi, og sagdi til Amasíu:
eg er eingi spámadur, og ekki spámanns son,
heldur er eg hirdir, og lifi á mórberjafíkjum;
15. en Drottinn tók mig frá hjardargeymsl-
unni; og Drottinn sagdi til mín: gakk, og spá
fyrir mínum lýd, Israelslýd! 16. Heyr þú
nú atkvædi Drottins: þú bannar mér ad spá í
gégn Israelsmønnum og láta ord mín streyma
gégn Isaksnidjum: 17. þess vegna (svo segir

Drottinn) skal kona þín verda smánud í borginni, synir þínir og dætur þínar skulu fyrir sverdi falla, jörd þinni skal sundurskipt verda med vad, og þú sjálfur skalt deya í heidnu landi, en Ísraelsmenn skulu verda herleiddir og fara útlægir af sínu landi.

## 8. Kapítuli.

*Amos afmálar sidaspillíngu Israelsmanna, og þær ófarir sem þeim voru búnar.*

1. Drottinn alvaldur lét þessa sýn bera fyrir mig: eg sá körf med sumarávöxtum. 2. Hann sagdi: hvad sjer þú, Amos? Eg svaradi: körf med sumarávöxtum. Þá sagdi Drottinn til mín: endirinn er kominn yfir minn lýd, Ísraelslýd; eg vil ekki lengur leida hjá mér misgjördir hans. 3. Saunglætin í höllinni skulu á þeim degi verda ad harmakveini, segir Drottinn alvaldur; fjöldi líka skal á öllum stödum verda út borinn í kyrrþey. 4. Heyrid þetta, þér sem viljid gleypa hinn fátæka, og undirkúga hina naudstöddu í landinu, 5. og segid: hvönær mun túnglkomuhátídin lída, svo vér meigum selja matvöruna, og hvíldardagurinn, ad vér meigum láta kornid falt, minka mælirinn, þýngja metin, og svíkja med rángri vog; 6. svo vér getum keypt auminngjann fyrir silfur, og fátæklínginn fyrir eina skó, og seldt kornsádirnar. 7. Drottinn sver vid þann sem Jakobs nidjar stæra sig af: eg skal aldrei til eilífdar gleyma athæfi þeirra. 8. Skyldi landid ekki skélfast af þessu, og allir þess innbyggjendur verda sorgbitnir? Gjörvallt landid skal verda í einu flódi, eins og í vatnagángi, þad skal burtskolast og fara í kaf, eins og Egyptalands fljót rynni yfir þad. 9. Á þeim degi, segir Drottinn alvaldur, skal eg láta sólina gánga til vidar um midjan dag, og landid verda myrkt á ljósum degi. 10. Eg skal snúa ydar hátídum í sorg, og öllum ydar gledisaungvum í harmakvædi; eg skal íklæda þá sorgarbúníngi, og gjöra höfud þeirra hárlaus; eg skal gjöra landid sorgbitid, eins og þá menn harma lát einkasonar síns, og endalok þess skulu verda sem hryggdardagur. 11. Sjá! þeir dagar koma, segir Drottinn alvaldur, ad eg mun senda húngur inn í landid, ekki húngur eptir braudi, eda þorsta eptir vatni, heldur eptir því, ad heyra ord Drottins. 12. Þeir skulu reika frá einu hafinu til annars, frá nordri til austurs; þeir skulu renna híngad og þángad, til ad leita eptir ordi Drottins, og þó ekki finna þad. 13. Á þeim degi skulu frídar meyar og æskumenn vanmegnast af þorsta. 14. Þeir er sverja vid glæpsku Samaríu, og segja: „svo sannarlega sem þinn Gud lifir, Danborg (1 Kóng. 12, 29. 30)! svo sannarlega sem þinn átrúnadur lifir, Berseba!" þeir hinir sömu skulu falla, og ekki framar á fætur rísa.

## 9. Kapítuli.

*Amos spáir, ad musterid muni nidurbrotid verda, ríkid til grunna gánga, og þjódin tvístrast; ad Drottinn muni aptur saman safna Israelsmönnum, vidreisa veldisstól Davíds, og blessa sitt fólk ríkuglega.*

1. Eg sá hinn Alvalda standa uppi á altarinu, og hann sagdi: slá þú á súlnahöfudin, svo hardt ad þröskuldarnir skjálfi; högg þú þau sundur, svo brotin hrjóti í höfud öllum þeim (sem fyrir nedan standa), en hina, sem eptir verda, skal eg slá í hel med sverdi. Sá af þeim, sem á flótta er kominn, skal ekki geta undan flúid; og sá sem er burt hlaupinn, skal ekki undan komast. 2. Þó þeir brjóti sér farveg

---

V. 7. Vid þann, sem J. stæra sig af, þ. e. vid sjálfan sig; Gydingar stærdu sig af því, ad Drottinn var þeirra Gud og bjargvættur (5, 14), en brutust þó í gégn honum med hjáguda átrúnadi og illum lifnadi. V. 14. Glæpska Samaríu, þ. e. gullkálfurinn, sem Samaria glæptist á.

niður í undirheima, þá skal þó hönd mín þrífa
þá þaðan; þó þeir stígi upp til himins, skal
eg steypa þeim ofan þaðan; 3. þó þeir feli
sig á Karmels tindi, skal eg leita þeirra þar og
færa þá þaðan; þó þeir vilji leynast fyrir aug-
um mínum á mararbotni, skal eg bjóða högg-
ormi, og hann skal bíta þá; 4. og þó þeir
hljóti að fara á undan óvinum sínum í útlegð,
þá skal eg þaðan senda sverðið til að drepa þá.
Eg vil snúa mínu augliti í gégn þeim, til ílls,
en ekki til góðs. 5. Því þegar hinn alvaldi
allsherjar Drottinn snertir jörðina, þá rennur
hún sundur, og allir, sem á henni búa, verða
fullir ángistar; hún verður öll í einu flóði, eins
og í vatnagángi, og fer í kaf, eins og Egypta-
fljót flói yfir hana. 6. Hann er sá, sem bygg-
ir sín herbergi á himni uppi (Sálm. 104, 3.
13), og grundvallar sínar hvelfíngar yfir jörð-
inni; hann kallar til sjáfarvatnsins, og eys því
yfir jörðina: Drottinn er hans nafn. 7. Er
mér vandfarnara við yður, Ísraelsmenn, en við
Blálendínga? segir Drottinn; hefi eg ekki flutt
Ísraelsmenn frá Egyptalandi, Filista frá Kap-
torslandi, og Sýrlendínga frá Kírlandi? 8.
Sjá, Drottinn hinn alvaldi snýr augliti sínu
gégn því hinu glæpafulla konúngsríki; eg skal
afmá það af jörðunni. Þó vil eg ekki með
öllu afmá Jakobs niðja, segir Drottinn. 9.
Því sjá, eg hefi ásett mér að sáldra Ísraels-
mönnum meðal allskonar þjóða, eins og þá
sáld er þannig skékið, að ekkért korn fellur til
jarðar. 10. En allir syndarar meðal míns
fólks skulu fyrir sverði falla, þeir er segja, „ógæf-
an mun ekki ná oss, og ekki koma á bak oss".
11. Á þeim degi vil eg aptur upp reisa Da-
víðs föllnu tjaldbúð, hlaða upp í veggjaskörðin,
hressa við það sem hrunið er, og byggja hana
upp, eins og hún var fyrr meir. 12. Þá
skulu þeir eignast eptirleifar Edomsmanna og
allra þeirra heiðíngja, sem mér hafa á hönd
gengið, segir Drottinn, sem lætur þetta fram
koma. 13. Sjá! þeir dagar munu koma,
segir Drottinn, að erjandanum skal lenda sam-
an við kornskurðarmanninn, og víntroðslumann-
inum saman við sáðmanninn; fjöllin skulu
drjúpa, og allir hálsar fljóta af vínberjalegi.
14. Því eg vil aptur heim leiða minn her-
leidda lýð, Ísraels lýð; þeir skulu uppbyggja
hinar eyðilögðu borgir, og búa í þeim, planta
víngarða, og drekka vín af þeim, búa til ald-
ingarða, og eta ávöxt þeirra. 15. Eg vil
gróðursetja þá í þeirra landi, og þeir skulu ekki
framar upprættir verða úr landi þeirra, því
er eg hefi gefið þeim, segir Drottinn þinn Guð.

# Spámaðurinn Obadías.

## 1. Kapítuli.

Obadías boðar Edomsmönnum Guðs reiði og hegn-
íngu; spáir að Ísraelsríki muni viðréttast.

1. Spádómur Obadíass. Svo segir Drott-
inn hinn alvaldi um Edomslýð: Vér höfum
fengið vísbendíngu frá Drottni, að sú orðsendíng
er gjörð heiðíngjunum, að þeir skuli búa sig
til ferðar, og að þeir vilji rísa upp, og herja
á Edomsland. 2. Sjá! eg vil gjöra þig (E-
domslýður!) að litilmótlegri þjóð, og þú skalt
verða mjög fyrirlitinn. 3. Ofmetnaður þinn
hefir dregið þig á tálar, þar eð þú átt bygð í

háfum klettaskorum, og segir í þínu hjarta: hvörr gétur steypt mér til jardar? 4. Þó þú værir svo háfleygur, sem ørn, og hreidradir þig medal stjarnanna, skylda eg þó steypa þér ofan þadan, segir Drottinn. 5. Ef þjófar kjæmu ad þér, eda ræníngjar á náttarþeli, mundir þú nokkud verda uppnæmur fyrir þad? Þeir stælu þó ekki meiru, en þeir kjæmust med. Ef vínlestursmenn yfirfelli þig, mundu þeir þó leifa þér nokkurt eptirsafn. 6. En hvörsu vandlega mun leitad verda á Esaú-nidjum, og rannsøkud fylsni þeirra! 7. Vid landamerkin munu allir sambandsmenn þínir vísa þér á burt; vinir þínir, sem ordnir eru þér ofvarnir, munu pretta þig, og setja vélar fyrir þig, til ad ginna frá þér matbjørg þína; og sjest þá, ad þig skortir heldur vitsmuni. 8. Sjá! á þeim degi vil eg, segir Drottinn, afmá vitra menn í Edomslandi, og hyggindin á Esaú-fjalli. 9. Kappar þínir, Temansborg, skulu standa agndofa, svo ad hvørt mannsbarn á Esaú-fjalli skal verda drepid nidur. 10. Søkum þess ofríkis, er þú gjørdir Jakobs-nidjum, brædrum þínum, skal svívirdíngin hylja þig, og þú skalt ad eilífu upprættur verda. 11. Þann dag er þú stódst øndverdur gégnt þeim, þegar óþjódirnar herleiddu hermenn þeirra, og útlendir menn gengu inn um borgarhlidin og urpu hlutkésti um Jerúsalemsborg — á þeim degi varst þú sem einn af óvinunum. 12. Þú hefdir þó ekki átt ad horfa upp á eymdarhag brædra þinna, upp á þenna þeirra óhamíngjudag! þú hefdir ekki átt ad gledja þig yfir Júdaríkis mønnum á eydileggíngar degi þeirra, og ekki hafa drembileg stóryrdi á vørum þér á þeirra neydardegi! 13. Þú hefdir ekki átt ad gánga inn um borgarhlid míns fólks á þess óhamíngjudegi, ekki horfa upp á ófarir þess á þess óhamíngudegi, ekki rétta ómildar hendur ad fjármunum þess á þess óhamíngjudegi! 14. Þú hefdir ekki átt ad standa á vegamótunum, til ad drepa nidur flóttamenn þeirra, og ekki selja þá í hers hendur, sem af komust, á neydardegi þeirra! 15. Því hegníngardagur Drottins er nálægur øllum þjódum; eins og þú hefir ødrum gjørt, eins skal þér gjørt verda; þad sem þú hefir til unnid, þad skal yfir þitt høfud koma. 16. Því, á því sama sem þér (Israelsmenn!) hafid bergt, á mínu heilaga fjalli, á því hinu sama skulu allar þjódir ávallt bergja; þær skulu bergja og til botns drekka, og verda eins og þær aldrei hefdu til verid.

17. En á Síonsfjalli skal vera athvarf, þar skal vera helgistadur, og Jakobs nidjar skulu fá aptur eignir sínar. 18. Þá skulu Jakobs nidjar vera sem eldur, og Jósefs nidjar sem logi, en Esaú-nidjar sem hálmleggir, sem hinir skulu brenna og eyda, svo ad ekkért skal eptir verda af Esaú-nidjum; því Drottinn hefir svo bodid. 19. Þeir skulu eignast sudurlandid ásamt med Esaú-fjalli, og undirlendid ásamt med Filistalandi, þeir skulu eignast Effraimsland og Samaríuland og Benjamínsland med Gíleadslandi. 20. Þessi herleiddi flokkur Israelsmanna skal eignast Kanverjaland allt til Sareptuborgar; og þeir sem herleiddir hafa verid frá Jerúsalemsborg til Seffaradsborgar, skulu eignast sudurborgirnar. 21. Þá skulu frelsendur upp stíga á Síonsfjall, til ad dæma Esaú-fjall; og ríkid skal tilheyra Drottni.

# Spámadurinn Jónas.

## 1. Kapítuli.

*Jónas er sendur af Gudi til Niniveborgar, en hann vill ei fara, og siglir til Tarsisborgar. Gud sendir storm, og Jónasi er kastad fyrir bord.*

1. Drottinn taladi þessum ordum til Jónasar Amittajsonar og sagdi: 2. far af stad, og gakk til Ninive, hinnar miklu borgar, og prédika móti henni; því vondska borgarmannanna er upp stígin fyrir mitt auglit. 3. En Jónas bjóst til ad flýa til Tarsisborgar frá augliti Drottins, og fór ofan til Jaffa; þar hitti hann skip, er ætladi til Tarsisborgar; hann greiddi farleigu fyrir sig, steig á skip, og ætladi sér ad komast med því til Tarsisborgar frá augliti Drottins. 4. Þá varpadi Drottinn miklum stormi á sjóinn, og gjørdist þá svo mikid ofvidri á hafinu, ad vid sjálft lá, ad skipid mundi brotna. 5. Skipverjar urdu hræddir, og hét hvørr á sinn gud, og køstudu farminum, sem innanbords var, í sjóinn, til ad létta á skipinu. Jónas hafdi gengid ofan í nedsta rúm í skipinu, lá þar og svaf vært. 6. Þá gékk stýrimadur til hans, og sagdi: hví sefur þú svo vært? Statt upp, og ákalla þinn Gud! vera má, ad Gud minnist vor, svo vér týnumst ekki. 7. Nú søgdu skipverjar, hvørr til annars: „komid, látum oss kasta hlutum, svo vér vitum, hvørjum þad er ad kénna, ad þessi ógjæfa er yfir oss komin“. Þeir køstudu sídan hlutum, og kom upp hlutur Jónasar. 8. Þá søgdu þeir til hans: seg oss, hvad til þess kémur, ad þessi ógjæfa hefir oss til handa borid; hvad hefir þú gjørt? hvadan komst þú? hvørt er fødurland þitt? og hvørrar þjódar ertu? 9. Hann sagdi til þeirra: eg er hebreskur madur, og trúi á Drottinn, Gud himinsins, þann er gjørt hefir sjó og þurrlendi. 10. Þá urdu mennirnir stórum hræddir, og søgdu til hans: „hví gjørdir þú slíkt?“ því þeir høfdu fengid ad vita, ad hann flýdi frá augliti Drottins: því Jónas hafdi sjálfur sagt þeim frá því. 11. Þeir søgdu þá til hans: „hvad skulum vér gjøra vid þig, svo hafid kyrrist?“ því sjórinn ókyrdist æ meir og meir. 12. Hann sagdi til þeirra: takid mig, og kastid mér í sjóinn, mun þá hafid kyrrt verda; því eg veit, ad þessi hinn mikli stormur er yfir ydur kominn fyrir mína skuld. 13. Þá tóku skipverjar til ára, og leitudu vid ad komast til lands, en gátu vid ekkért rádid, því sjórinn ókyrdist æ meir og meir í móti þeim 14. Þá kølludu þeir til Drottins, og søgdu: vér bidjum þig, Drottinn, lát oss eigi tortýnast, þó vér gløtum lífi þessa manns, og lát oss eigi gjalda þess, sem vér hefdum fyrirkomid saklausum manni; því þú ert Drottinn, og gjørir þad sem þér er þóknanlegt. 15. Þeir tóku nú Jónas, og køstudu honum í sjóinn; vard hafid þá kyrrt, og sjáfarólgan hætti. 16. Þá óttudust mennirnir Drottinn hardla mjøg, færdu Drottni fórnir, og hétu stórheitum.

## 2. Kapítuli.

*Lofsaungur Jónasar í kvidi stórfiskjarins.*

1. Þá sendi Drottinn stórfisk til ad svelgja Jónas; og Jónas var í kvidi fiskjarins þrjá daga og þrjár nætur. 2. Jónas bad til Drottins, síns Guds, í kvidi fiskjarins, 3. og sagdi:

Eg kalladi til Drottins í minni neyd, og hann svaradi mér; eg hljódadi frá afgrunni undirdjúpsins, og þú heyrdir mín hljód. 4. Þú varpadir mér í djúpid, í midbik sjáfarins,

hvar straumurinn umkríngdi mig; allar þínar
bárur og bylgjur gengu yfir mig. 5. Eg sagdi:
„eg er útrekinn frá þínu augliti! Þó mun eg
enn eitt sinn líta þitt heilaga musteri". 6.
Vötnin umkríngdu mig inn ad sálunni (Sálm.
69, 2), svo ad lífi mínu var hætt: vatna-
geimurinn lá í hríng utan um mig: höfdi
mínu var faldad med marhálmi. 7. Eg sökk
nidur ad grundvöllum fjallanna, máttsúlur jard-
arinnar voru eilíflega læstar utan ad mér: en
þú Drottinn, minn Gud, færdir líf mitt upp
úr gryfjunni. 8. Þegar mín sála vanmegn-
adist í mér, þá minntist eg á Drottinn, og mín
bæn kom til þín, til þíns heilaga musteris. 9.
Þeir sem dýrka einskisverda hjágudi, þeir hafna
sínu, yfirgéfa sitt hjálpræði. 10. En eg vil
med lofgjördar saung, færa þér fórnir, og efna
mitt heit; hjálpræðid kémur frá Drottni.
11. Drottinn taladi til fiskjarins, og fiskur-
inn spjó Jónasi upp á þurrt.

## 3. Kapituli.

Jónas prédikar fyrir Niniveborgar mönnum; þeir betra sig og fá uppgjöf synda sinna.

1. Drottinn taladi til Jónasar annad sinn,
og sagdi: 2. far af stad, og gakk til Ninive,
hinnar miklu borgar, og flyt henni þann bod-
skap, er eg mun birta þér. 3. Jónas fór af
stad, og gékk til Ninive eptir skipun Drottins;
en Ninive var furdulega mikil borg, þrjár dag-
leidir (umhverfis). 4. Jónas gékk fyrst eina
dagleid innan borgar, því næst kalladi hann
og sagdi: „ad lidnum 40 dögum skal Ninive
verda eydilögd". 5. Niniveborgar menn hlýddu
Gudi, kunngjördu föstuhald, og klæddu sig í
sorgarbúníng, bædi úngir og gamlir. 6. Og
sem þetta barst til Konúngsins í Ninive, stód
hann upp úr hásæti sínu, lagdi af sér skikkju
sína, klæddi sig í hárklædi, og settist í ösku. 7.
Var þá med atkvædum Konúngs og hans vild-
armanna gjörd heyrum kunnug í Ninive svo
látandi skipun: „aungvir menn eda fénadur,
hvörki naut, né saudir, skulu nokkud smakka,
ekki á gras gánga eda vatn drekka; 8. bædi
menn og sképnur skulu íklædast sorgarbúníngi, og
kalla ákaflega til Guds; hvörr madur skal
láta af sinni vondri breytni, og af þeim ráng-
indum, sem hann hefir um hönd haft; 9.
hvörr veit, nema Gud kunni ad sjá sig um
hönd, kénna í brjóst um oss, og láta af sinni
brennandi reidi, svo vér ekki fyrirförumst". 10.
En er Gud sá breytni þeirra, ad þeir létu af
sínu vonda athæfi, þá lét Gud hjá lída þá
hegníngu, er hann hafdi hótad þeim, og lét
hana ekki fram koma.

## 4. Kapituli.

Gud átelur Jónas fyrir þad ad hann var óánægdur yfir því, ad Gud hafdi þyrmt Niniveborgar mönnum.

1. Jónasi mislíkadi þetta næsta mjög, og
hann vard reidur. 2. Hann bad til Drottins,
og sagdi: heyr mig, Drottinn! kémur nú ekki
ad því, sem eg hugsadi, medan eg enn var í
mínu landi? Þess vegna vildi eg í fyrra sinni
flýja til Tarsisborgar; því eg vissi, ad þú ert
líknsamur og miskunsamur Gud, þolinmódur og
gædskuríkur, og óhótrækinn. 3. Eg bid þig,
Drottinn, tak nú mína önd frá mér! því mér
er betra ad deya, en lifa. 4. Drottinn sagdi:
er þad rétt gjört af þér, ad reidast svo? 5. Jón-
as hafdi farid út af borginni, og búist um fyrir
austan borgina; þar hafdi hann gjört sér laufskála,
og sat hann undir skálanum í forsælunni, og beid
þess ad hann sæi, hvörnig Ninive borginni reiddi
af. 6. Þá lét Drottinn Gud undurnjóla

V. 6. Undurnjóli er vidartegund, sem mikid vex af í Gydingalandi; hann er graskynjadur, holur innan, vex undrunarlega fljótt svo ad hann innan fárra daga verdur ad litlu tré, blödin eru breid sem á vínvidi, og ber af þeim mikinn skugga; af frækjarnanum fæst olía, sem höfd er til lækninga. Undurnjóli er eigi vanur ad standa leingur enn tvo ár.

uppspretta, og vaxa upp yfir Jónas, til þess ad bera skugga á høfud hans, og frelsa hann frá því, sem honum var ad meini, og vard Jónas stórlega feginn undurnjólanum. 7. En næsta dag, þegar morgunrodinn rann upp, lét Gud orm koma; sá stakk undurnjólann, svo hann visnadi. 8. Og er sól var á lopt komin, lét Gud koma hægan austanblæ, og skein sólin svo heitt á høfud Jónasi, ad hann vanmegnadist; þá óskadi hann sér dauda, og sagdi: mér er betra ad deya, en lifa! 9. Þá sagdi Gud til Jónasar: er þad rétt gjørt af þér, ad reidast svo vegna undurnjólans? Hann svaradi; þad er rétt, ad eg reidist til dauda. 10. En Drottinn sagdi: þig tekur sárt til undurnjólans, sem þú hefir ekkért fyrir haft og ekki uppklakid, sem vóx á nóttu og hvarf á nóttu; 11. og mig skyldi ekki taka sárt til Ninive, hinnar miklu borgar, í hvørri ad eru miklu meir en hundrad og tuttugu þúsundir manna, er ekki þekkja hægri hønd sína frá hinni vinstri, og þar med fjøldi dýra.

# Spámadurinn Mikkas.

## 1. Kapítuli.

Mikkas bodar tilkomu Drottins til ad hegna Ísraels mønnum og Júdaríkis mønnum fyrir þeirra hjágúda dýrkun; spáir Ísraelsríki gjørsamlegri eydileggingu, og Júdaríki stórum óførum.

1. Þetta er þad ord, er Drottinn taladi til Mikkasar frá Maresaborg, á døgum Jótams, Akasar og Esekíasar, Júdaríkis konúnga, hvørju hann spádi gégn Samaríu og Jerúsalemsborg. 2. Heyrid, allir lýdir! Géf gaum ad, þú land og allt sem í þér er! Drottinn alvaldur mun sem vottur framgánga ydar á medal, hinn Alvaldi af sínu hinu heilaga musteri. 3. Því sjáid! Drottinn mun út fara af sínum bústad, ofan stíga og gánga eptir hædum jardarinnar. 4. Fjøllin munu brádna undan honum, sem vax fyrir eldi, og dalirnir klofna, eins og vatn er steypist ofan hallanda; 5. og allt þetta fyrir sakir misgjørda Jakobs nidja, og fyrir synda sakir Ísraelsmanna. Hvørr er þá skuld í misgjørd Jakobsnidja? Er þad ekki Samaría? Og hvørr er valdur ad blóthørgum Júdaríkis manna? Er þad ekki Jerúsalemsborg?

6. Eg vil fara med Samaríu, eins og farid er med grýttan akur, hvar menn ætla ad planta víngarda: eg vil velta steinum hennar ofan í dalinn, og láta sjást í beran grundvøll hennar. 7. Øll hennar skurdgod skulu í sundur brotin verda, og allur hennar blótaudur í eldi brendur; eg skal í eydi leggja øll hennar godalíkneski, því hún hefir saman dregid þenna aud af blótgjøfum og hann skal ad blótgjøfum aptur verda. 8. Vegna þessa hlýt eg ad harma og kveina; eg hlýt ad gánga sem herteinn og klædlaus; eg verd ad telja mér harmatølur sem gullrakkar, og bera fram kveinstafi, sem strútsfuglinn. 9. Því hennar sár er banvænt, og nær til Júdaríkis, og allt ad borgarhlidum míns fólks, til Jerúsalemsborgar. 10. Látid ekki verda vart vid þetta í Gatsborg; Grátid ekki hátt! Hyl þig med øsku í Betaffra. 11. Gángid fram blygdunarlega naktar, þér konur, sem búid í Saffírsborg! Farid ekki út,

þér konur, sem búið í Sanansborg! því Betéselsborg er í ángist, og fær ekkért herbergi veitt ydur. 12. Marotsborg er kvídandi um sinn hag; því ógjæfan er nidur stígin frá Drottni allt ad hlidum Jerúsalemsborgar. 13. Beit skjótum hestum fyrir vagninn, þú innbúi Lakisborgar! í þeirri borg upp kom fyrst synd Síonsdóttur, því hjá þér fundust misgjørdir Ísraelsmanna. 14. Láttu af ad gjøra tilkall til ad eignast Gatsborg. Aksíbsborg skal ad aungvu haldi koma Ísraelskonúngum. 15. Einnig ydur, innbúum Maresaborgar, vil eg fá annan eiganda. Høfdíngjar Ísraelsmanna skulu flýa í Adúllams hellir. 16. Raka þig, gjør þig skøllótta, vegna þinna ástfólgnu barna; gjør þig allavega hárlausa, sem ørn, því þau eru tekin frá þér og flutt burt í útlegd.

## 2. Kapítuli.

Mikkas prédikar móti ránglæti og kúgun, og lýgispámønnum, sem tældu þjódina.

1. Vei þeim mønnum, sem hugsa upp rángindi og hafa ill rád med høndum í hvílurúmum sínum, og framkvæma þau, þegar ljómar af degi, af því þeir hafa krapt í hendi. 2. Lángi þá til ad eignast akra, þá ræna þeir þeim: lángi þá til ad eignast hús, taka þeir þau; þeir gjøra ofríki á húsbúandanum og húsi hans, á landeigandanum og landeign hans. 3. Þar fyrir segir Drottinn svo: eg hefi ásett mér ad leggja á þessa kynslód þá óhamingju, er þér skulud eigi fá af ydur hrundid, og ekki undir risid; svo mikil skal sú óhamíngja verda. 4. Á þeim degi munu menn kveda kvædi um ydur, og hafa grátlegar harmatølur: „vér erum gjørsamlega eydilagdir! landeign míns fólks er útilokud ødrum! ó ad mér skuli vera fyrirmunad, ad ná aptur økrum vorum, sem menn hafa skipt í milli sín!" 5. Já, þetta skal á þér rætast! þú skalt eingan finna, sem úthluti þér nokkuru hlutskipti medal Drottins safnadar.

6. „Spáid þér ekki (segja þeir)! Spái hinir heldur, þeir spá ekki eins og þessir, hvørra skútyrdum aldrei linnir". 7. Þér svonefndu Jakobs nidjar! Er Drottinn þá óþolinmódur: er hans adferd þesshátar? Eru mín ord ekki gjædskurik vid þá, sem gánga hinn rétta veg? 8. En mitt fólk hefir nú þegar leingi risid upp á móti mér, sem óvinur; þá menn, sem heim koma úr herferd og gánga ugglausir, afklædid þér og færid þá úr yfirhøfninni, svo þeir hafa ei eptir nema kyrtilinn; 9. konur míns fólks rekid þér út af húsum sínum, hvar þær hafa átt góda daga; frá úngbørnum þeirra takid þér þad skart, sem eg hefi þeim géfid, svo þau fá þad aldrei aptur! 10. Burt med ydur hédan! því hér er ekki samastadur handa ydur. Landid er spillt og fársjúkt! 11. Fari nokkurr med hégóma og lygar, og segi: „eg skal spá fyrir þér, ef eg fæ vín og áfenga drykki", hann er réttur spámadur fyrir þetta fólk.

12. Samt vil eg á sídan safna ydur øllum saman, þér Jakobs-nidjar! Eg vil samansafna eptirleifum Ísraelsmanna, eg vil safna þeim saman í eitt, eins og saudfé í kvíum, eda hjørd í fjárhúsi; þar skal verda klidur mikill af mannmergdinni. 13. Eitt sinn mun nokkur sá upp rísa, sem brjóta mun hlid á fyrir þá; þá skulu þeir rydjast fram, fara í gégnum hlidid og gánga út, skal Konúngur þeirra fara fyrir þeim, og Drottinn vera í broddi fylkíngar þeirra.

## 3. Kapítuli.

Mikkas spáir ránglátum valdsmønnum og lýgispámønnum hegníngu Guds, og ad høfudborg landsins og musterid muni eydilagt verda.

1. En nú segi eg: Heyrid þó, þér høfudsmenn Jakobs-nidja og dómendur Ísraels-

manna! Egid þér ekki ad vita, hvad rétt er?
2. Samt hatid þér hid góda, en elskid hid
vonda; þér fláid menn og takid holdid af bein-
um þeirra: 3. þér etid hold míns fólks, fláid
það, brjótid bein þess, og kastid þeim sem stykk-
jum í kétil, og sem kjøti í pott. 4. Eitt sinn
munu þeir kalla til Drottins, en þá skal hann
ekki svara þeim; hann mun þá byrgja auglit
sitt fyrir þeim, af því breytni þeirra er vond.

5. Svo segir Drottinn á móti þeim spá-
mønnum, sem villa mitt fólk, sem spá fridi,
medan þeir hafa nokkud tanna milli, en boda
ófrid, sé þeim ekki vikid neinu: 6. Sannlega
mun sú nótt koma, ad þér skulud ekkért sjá,
og það myrkur, ad þér skulud aungvu spá:
sólin skal ekki upp renna yfir þesshåttar spá-
menn, og dagurinn skal verda myrkur yfir þeim.
7. Þeir sem sjá sjónir, skulu þá fyrirverda
sig, og þeir sem fara med spádóma, skulu
verda til skammar: þeir skulu stínga høfdi í
feld, því Gud mun eingi andsvør veita.

8. Eg þar á móti er fullur af krapti, af
anda Drottins, af réttlæti og djørfúng, svo eg
þori ad segja Jakobs-nidjum til sinna mis-
gjørda, og Israelsmønnum til synda sinna.
9. Svo heyrid nú þetta, þér høfdíngjar Jakobs-
nidja, og dómendur Israelsmanna! þér sem
hafid vidbjód á réttvísinni, og umhverfid øllu
því sem rétt er. 10. Heyri þad sérhvørr,
sem fremur manndráp á Síonsfjalli, og hefir
rángindi í frammi í Jerúsalemsborg. 11. Høfd-
íngjar borgarinnar dæma fyrir mútu, hennar
kénnimenn kénna fyrir kaup, spámenn hennar
spá fyrir penínga; og þó reida þeir sig á
Drottinn, og segja: „er ekki Drottinn vor á
medal? eingin ógjæfa kann oss ad henda"!
12. Þess vegna skal Síonsfjall fyrir ydar skuld
plægt verda sem akur, Jerúsalemsborg skal verda
ad steinahrúgu, og musterisfjallid ad skógarhálsi.

V. 3. *a.* Þessi þrjú vers eru samhljóda Es. 2, 2—4.

# 4. Kapítuli.

*Mikkas huggar Gydínga med þeim spádómi, ad must-
erid skuli aptur verda uppbyggt, og verda enn
veglegra, en hid forna; áminnir þá til þolinmædi
í hinni Babýlonsku herleidíngu, sem fyrir þeim lá.*

1. Á hinum sídustu døgum mun þad verda,
ad fjall þad, er musteri Drottins stendur á,
skal grundvallad verda á tindi fjallanna, og
gnæfa upp yfir hædirnar, og þjódirnar skulu
streyma þángad. 2. Þá skal fjøldi heidíngja
fara af stad, og segja: komid, látum oss gánga
upp til Drottins fjalls, og til húss Jakobs-
Guds, svo hann vísi oss sína vegu, og svo vér
megum gánga á hans stigum; því løgmálid
gengur út frá Síonsfjalli, og ord Drottins frá
Jerúsalemsborg. 3. Hann skal dómari vera
medal margra þjóda, og úrskurd veita voldug-
um þjódum í fjarlægum løndum, svo ad þær
skulu smída plógjárn úr sverdum sínum, og korn-
sigdir úr spjótum sínum; eingin þjód skal sverdi
bregda í gégn annari, og þadan í frá einga
hernadar íþrótt læra a); 4. heldur skal hvørr
búa undir sínu víntré og fíkjutré, án þess nokk-
urr skjóti þeim skélk í bríngu; því Drottinn alls-
herjar hefir svo bodid. 5. Og enn þótt allar
þjódir vildu fram gánga hvør í nafni síns Guds,
þá skulum vér samt framgánga í nafni Drott-
ins, vors Guds, æ og æfinlega. 6. Á þeim
degi, segir Drottinn, vil eg taka ad mér hina
høltu, og saman safna hinum tvístrudu, og þeim
sem eg hefi plágad. 7. Eg skal halda hinum
høltu vid lýdi, og gjøra hina útreknu ad vold-
ugri þjód, og Drottinn skal vera Konúngur yf-
ir þeim á Síonsfjalli hédan í frá og til eilífd-
ar. 8. Og þú hjardarturn, þú Síons hæd!
hid forna veldi skal til þín koma og aptur til
þín hverfa, Konúngdómurinn skal aptur hverfa
til Jerúsalemsborgar.

9. Nú, hví hljódar þú svo hástøfum? hef-

ir þú eingan Konúng? er ráðgjafi þinn horfinn? Þú hefir tekið sótt, eins og jóðsjúk kvinna. 10. Fá þú hríðir og fæð, Síons dóttir, sem jóðsjúk kvinna! Því að sönnu hlýtur þú út af borginni að gánga og búa á víðavángi, og fara allt til Babelsborgar: en þar skaltu frelsuð verða, þar skal Drottinn leysa þig af hendi óvina þinna. 11. Fjøldi heiðíngja mun að vísu bráðum safnast á móti þér, og segja: „hún er vanheiløg orðin! vér høfum gaman af að horfa á Síonsfjall"; 12. en þeir vita ekki Drottins hugsanir, og skilja ekki hans ráð, að hann safnar þeim sjálfum saman, eins og kérfum á kornláfa. 13. Rís upp og þresk, Síons dóttir! eg skal géfa þér járnhorn og eirklaufir, svo þú skalt sundurmerja margar þjóðir; og skal helga Drottni þeirra eignir, og þeirra auðlegð hinum alvalda Drottni allrar jarðarinnar. 14. Þá skaltu þú engja þig saman, þú (Babelsborg!) sem sendir út hleypiflokkana, er setja munu hervirki í kríngum oss, og ljósta munu landshøfðíngja Ísraelsmanna stafshøggi.

## 5. Kapítuli.

Mikkas spáir um Mesías, um viðreisn og betrun Gyðínga.

1. Og þú Betlehem í Effrata-héraði, þó þú sért oflítil til þess að teljast meðal høfuðættborga Júdaríkis, þá skal þó frá þér útgánga sá, sem vera skal yfirhøfðíngi Ísraelsmanna; hans uppruni skal vera frá aldaøðli, í frá døgum eilífðarinnar. 2. Að sönnu mun Guð láta þá vera í hers høndum allt til þess tíma, að sú hefir fætt, er fæða skal: en þá skulu hinir aðrir bræður hans aptur koma til Ísraelsniðja. 3. Hann skal standa og gæta sinnar hjarðar, í krapti Drottins, í hátign Drottins, síns Guðs; og þeir skulu óhultir búa, því nú skal hans veldi ná allt til endimarka landsins (Sak. 9, 10). 4. Hann skal vera friðarhøfundur. Þó Assýríu Konúngur fari inn í land vort, og vaði inn í vor virki, þá skulum vér kveðja upp sjø hirðara og átta herforíngja móti honum; 5. þeir skulu fara herskildi yfir land Assýríu Konúngs, og yfir Nimrods land allt að borgarhliðum þess. Þannig skal hann frelsa oss frá Assýríu Konúngi, ef hann fer inn í land vort, og stígur inn yfir vor landamerki.

6. Þá skulu eptirleifar Jakobs niðja verða á meðal margra þjóða sem døgg frá Drottni, sem regnskúrir á grasi, þær er ekki bíða eptir manninum, og ekki vænta mannanna barna. 7. Eptirleifar Jakobs niðja skulu verða á meðal heiðíngjanna, mitt á meðal margra þjóða, eins og ljón á meðal skógardýra, eins og ljónskálfur í sauðahjørð, sá er niðurtreður og sundurrífur, þar sem hann veður yfir, án þess nokkur fái bjargað. 8. Þín hønd skal á lopti vera yfir mótstøðumønnum þínum, og allir óvinir þínir skulu afmáðir verða. 9. Á þeim degi, segir Drottinn, vil eg eyða øllum þeim hestum, sem þú átt í landinu, og gjøra að aungvu vagna þína; 10. eg vil eyða borgum þíns lands, og niðurbrjóta øll þín virki; 11. eg vil af taka alla galdra hjá þér, og eingi skal finnast hjá þér, sem fer með augnaseið; 12. eg vil eyða þínum skurðgoðum og þeim goðalíkneskjum, sem hjá þér eru, og þú skalt ekki þaðan í frá falla fram fyrir verkum þinna handa; 13. eg vil niðurbrjóta þín Astarots-líkneski, og afmá þína blótstaði; 14. með reiði og heipt vil eg hefnast á þeim heiðíngjum, sem eigi vilja hlýða.

## 6. Kapítuli.

Málsókn Guðs við Gyðínga: velgjøríngar Drottins, fórnfæríngar Gyðínga, siðaspillíng þeirra og verðskulduð hegníng.

1. Heyrið þó, hvað Drottinn segir: Statt

upp, og sæk søk nokkura fyrir fjøllunum, og
lát hædirnar heyra þína raust! 2. Heyrid kjæru-
mál Drottins, þér fjøll! þér bjørg, undirstødur
jardarinnar! því Drottinn hefir mál ad kjæra
vid sitt fólk, hann vill gánga í lagadóm vid
Ísraelsmenn. 3. Mitt fólk! hvad hefi eg gjørt
þér? med hvørju hefi eg móðgad þig? Svara
þú mér! 4. Eg færdi þig þó út af Egyptalandi,
frelsadi þig af þrældómshúsinu, og sendi þér
fyrirlida, Móses, Aron og Maríu. 5. Mitt
fólk! lát þér þó í hug koma, hvad Balak Mó-
abskonúngur hafdi í hyggju, og hvørju Bileam
Peorsson svaradi honum (4 Mós. 23, 24);
minnst þess, er gjørdist á leidinni frá Sittims-
dal til Gilgals, svo þú kannist vid velgjørnínga
Drottins.

6. Med hvad skal eg koma fram fyrir Drott-
inn, þá eg fell fram fyrir Gudi enum hædsta?
Skal eg koma fram fyrir hann med brennifórn-
ir, med ársgamla kálfa? 7. Hefir Drottinn
þóknun á þúsund hrútum, á tíu þúsund vid-
smjørs lækjum? Skal eg fórna mínum frum-
getna syni fyrir mína misgjørd, ávexti míns
lífs fyrir synd minnar sálar? 8. Hann hefir
kunngjørt þér, madur, hvad gott sé; og hvad
heimtar Drottinn annad af þér, en ad gjøra
rétt, ástunda kjærleika, og framgánga í lítil-
læti fyrir þínum Gudi?

9. Rødd Drottins kallar til borgarinnar
(heill sé þeim, sem óttast þitt nafn!): Heyr-
id, hvør hegníngin er, og hvørr sá er, sem
hana bodar! 10. Finnst ekki enn þá ráng-
fengid fé í húsum hinna ránglátu, og linur
mælir, sem bølvaninni er yfir lýst? 11. Verd
eg ekki vanheidradur, þá menn hafa ránga
vog og svikalód í toskum sínum? 12. Verd
eg ekki vanheidradur í borginni, hvar ed ríkis-
mennirnir eru fullir af rángsleitni, og innbygg-
jendurnir tala lygar og hafa túngu sína til
svika? 13. Þess vegna vil eg leggja á þig
þúngar plágur, og eydileggja þig fyrir þinna
synda skuld. 14. Þú skalt eta, en þó ekki
sedjast, heldur plágast af húngri; þú skalt
eingu géta bjargad af því sem þú kémur und-
an, og því sem þú bjargar, þad skal eg ofur-
selja sverdinu; 15. þó þú sáir, skaltu þó ekk-
ért uppskéra; þó þú trodir vidsmjørsberin,
skaltu þó ekki smyrja þig med vidsmjøri; þó
þú sprengir vínberin, skaltu þó ekki vínid
drekka. 16. Menn hafa haldid sidum Omra
og øllu háttalagi Akabs-ættar (1 Kóng. 16,
25. 30); eptir þeirra athæfi hafid þér breytt,
til þess eg leggi borgina í eydi, og láti inn-
byggjendur hennar verda ad spotti; þér skulud
bera svívirdíngu míns fólks.

## 7. Kapítuli.

Framhald: sidaspillíng fólksins, þess umvendun, bæn
og loffaungur.

1. Vei mér! því mér fer, eins og þá leit-
ad er sumarávaxta eda vínberja, eptir ad búid
er ad hirda; ekkért vínber finnst, sem ætilegt
sé, mig lángadi til ad finna eina árfíkju (en
fann aungva). 2. Gudhræddir menn eru
horfnir úr landinu, eingi rádvandur madur
finnst medal fólksins; allir sitja um líf annara,
og hvørr leggur net fyrir annan. 3. Til þess
ad gjøra íllt, leggja menn fram bádar hend-
ur; landshøfdínginn og dómarinn mælast til
launa; maktarmennirnir eru bermálir um vondsku
sína, og gjøra hana flókna. 4. Hinn besti
medal þeirra er sem þyrnir, og hinn rádvand-
asti eins og þyrnigérdi. Hegníngardagurinn,
sem spámenn þínir hafa fyrir spád, kémur; þá
munu þeir verda úrrædalausir. 5. Trúid eigi
kunníngjum ydar, treystid eigi vinum ydar!
vardveit munn þinn fyrir þeirri, sem hvílir í
fadmi þínum! 6. því sonurinn fyrirlítur fød-
urinn, dótturin setur sig á móti módurinni,

tengdadóttirin móti tengdamódur sinni, og heimamennirnir eru óvinir húsbónda síns.

7. En eg vil líta upp til Drottins, eg vil bída eptir Gudi míns hjálprædis; minn Gud mun bænheyra mig. 8. Gled þig ekki, óvina mín! þó eg sé fallin, mun eg rísa á fætur aptur; þó eg sitji í myrkri, er þó Drottinn mitt ljós. 9. Eg vil þola hegníngu Drottins, því eg hefi syndgad á móti honum, þar til hann hefir flutt mál mitt og sókt søk mína; hann mun leida mig út (úr myrkrinu) til ljóssins; þá mun eg þreifa á hans gjædsku. 10. Ovina mín mun sjá þetta, og skammast sín øll, því hún hafdi sagt vid mig: „hvar er Drottinn, þinn Gud"? Augu mín skulu horfa á hana, þar sem hún verdur brádum undir fótum trodin, eins og saur á strætum.

11. Sá dagur kémur, ad þínir múrveggir (Jerúsalemsborg!) skulu uppbygdir verda; en þángad til þessi dagur kémur, lídur lángur tími. 12. En þegar sá dagur kémur, munu menn koma til þín frá Assýríalandi og borgum Egyptalands, frá Egyptalandi og allt til Fljótsins (Evfrats), frá hafi til hafs, frá fjalli til fjalls. 13. Þó skal landid (ádur) verda í eydi lagt, søkum innbyggjenda sinna: þad verdur ávøxturinn af verkum þeirra.

14. Gjæt þíns fólks med þínum hjardarstaf: haldt þeirri hjørd, sem er þín eign, og sem býr ein sér, í skóglendinu midt á Karmelsfjalli, lát hana gánga í Basans og Gíleads haglendi, eins og fordum daga! — 15. Eg skal láta þig sjá undrunarverd stórmerki, eins og þann dag er þú gékkst út af Egyptalandi. 16. Heidíngjarnir skulu sjá þau, og skammast sín, allt hvad fræknir þeir eru: þeir munu leggja hønd á munn sér og byrgja fyrir eyru sín; 17. þeir skulu sleikja dupt, sem høggormur; þeir skulu skrída titrandi, sem skridkvikindi jardar, fram úr fylsnum sínum, skjálfa fyrir Drottni, Gudi vorum, og óttast þig.

18. Hvør er slíkur Gud, sem þú? Hvørr ed fyrirgéfur syndirnar, og forlætur misgjørdirnar, þeim sem eptir eru af hans eiginlegri eign; hann sem ekki heldur sinni reidi æfinlega, því þad er hans unun ad vera miskunsamur. 19. Hann mun miskuna oss aptur, nidurtroda vorar misgjørdir, og varpa øllum vorum syndum í hafsins djúp. 20. Þú munt audsýna Jakobs-nidjum þá trygd, og Abrahams nidjum þá miskunsemi, sem þú sórst forfedrum vorum fordum daga.

# Spámadurinn Nahúm.

## 1. Kapítuli.

Nahúm lýsir Guds réttlæti og miskunsemi; spáir eydileggíngu Niniveborgar, og afdrifum Senakeribs.

1. Spádómur um Ninive. Spádómsbók Nahúms frá Elkos.

2. Drottinn er vandlætandi og hegnandi Gud; hegníngasamur er Drottinn, og voldugur í sinni reidi; refsíngasamur er Drottinn vid mótstødumenn sína og lángrækur vid óvini sína. 3. Drottinn er þolinmódur; en hann er mikill

V. 8. Ovina mín, líklega meinast Babelsborg.

ad krapti, og lætur ekki óhegnt misgjørdanna.
Hann er sá Drottinn, hvørs vegur er í felli-
byljum og stormvidri, og skýin eru hans fóta-
ryk. 4. Hann hastar á sjóinn og gjørir hann
þurrann, og uppþurkar øll fljót: þá følnar
Basan og Karmel, þá følna øll blóm á Líba-
non. 5. Fjøllin skjálfa fyrir honum, og háls-
arnir brádna; jørdin hristist fyrir hans augliti,
veraldarkrínglan og allir sem á henni búa. 6.
Hvørr má standast hans reidi? hvør getur af
borid hans brennandi heipt? Hans brædi foss-
ar út, eins og eldur, og bjørgin bresta sundur
fyrir honum. 7. Gódur er Drottinn til at-
hvarfs á degi neydarinnar, og hann þekkir þá
sem treysta honum.

8. En med yfirgeysandi vatnsflódi mun hann
gjørsamlega afmá stødvar hennar (Niniveborg-
ar), og myrkur mun ofsækja óvini hans. 9.
Hvad viljid þér til bragds taka móti Drottni?
Hann eydileggur, svo af tekur: áfellid þarf
ekki ad koma tvisvar. 10. Þó þeir séu sam-
flæktir, sem þyrnar, og svo vøkvafullir, sem
þeir géta ordid, skulu þeir þó verda med øllu
uppbrendir, sem þurrir hálmleggir.

11. Frá þér útgékk vondur rádgjafi a), sem
hafdi íllt í huga gégn Drottni. 12. En Drott-
inn sagdi svo: þó þeir komi med øllum sínum
styrk og mannfjølda, þá skulu þeir allt ad einu
gjøreyddir verda, og hann (Senakerib) frá hverfa.
Eg hefi audmýkt þig (Jerúsalemsborg!), og
vil ekki audmýkja þig meir en komid er; 13.
heldur vil eg brádum brjóta af þér hans ok,
og sundurslíta þín bønd. 14. En um þig
(Senakerib!) er Drottins atkvædi þetta: „þitt
nafn skal ekki framar uppi vera; eg vil eydi-
leggja skurdgodid í þínu godahúsi, og gjøra hid
steypta líkneski ad grøf þinni b), því þú hefir
gjørt þig fyrirlitlegan".

## 2. Kapítuli.

*Nahúm upphvetur Júdaríkis menn til þakklætis vid Gud; afmálar eydileggíngu Niniveborgar.*

1. Sjáid! á fjøllunum kémur einhvørr hlaup-
andi med fagnadartídindi og fridarbodskap.
Haldt helgar þínar hátídir, Júdaríki, og gjaldt
þín heit! því vandrædamadurinn skal ekki fram-
ar veita þér ágáng; hann er med øllu afmádur.

2. Ofridarmadur fer á hendur þér (Assýríu
Konúngur!); gjæt vel ad virkjum þínum, set
njósnir á veginum, búst alla vega sem best um,
safna øllum þínum styrk! 3. Því Drottinn
vill nú aptur vidrétta tign Jakobs nidja, og
tign Ísraelsmanna, þar ed ófridarmenn hafa
eydilagt þá og afbrotid kvistu þeirra. 4. Skild-
ir kappa hans eru raudlitadir, hermennirnir gánga
á skarlatsklædum, vagnarnir glóa af stálinu,
þann dag er hann býr her sinn, og lensurnar
bifast. 5. Vagnarnir geysa á strætunum, og
velta inn á torgin; hermennirnir eru tilsýndar
sem blys, þeir hlaupa sem eldíngar. 6. Hann
(Assýríu Konúngur) heitir þá á kappa sína,
en þeir falla, þegar þeir gánga fram; þá
hlaupa menn til múrveggjarins, og skjóta víg-
ásum fyrir borgarhlidid; 7. en borgarhlidunum,
sem ad fljótinu vita, er upplokid, og Konúngshøllin
nidurrifin. 8. Sá kostur er einrádinn: hún (borg-
in) skal flett verda og flutt í útlegd, þernur
hennar skulu fylgja henni, kvakandi sem dúf-
ur, og berjandi sér á brjóst. 9. Ninive hefir
frá upphafi vega sinna verid sem vatnadíki;
en þau vøtn eru nú horfin: (þó kallad sé),
„standid vid, standid vid!", verdur einginn til
ad hverfa aptur. 10. Rænid þá silfrinu, ræn-
id gullinu (þér sigurvegarar!); því hér er ó-
grynni fjár og gnótt allskonar dýrgripa. 11.
Hún er tæmd, gjørtæmd og í eydi! hjørtun

V. 11. *a.* Rabsak, rádgjafi Senakeribs, sjá 2 Kóng. 18, 13—37. Es. 36. V. 14. *b.* 2 Kóng. 19, 37: Es. 37, 38.

brádna, knén rida, allar mjadmir skjálfa, og allra andlit blikna! 12. Hvar er nú bæli ljónanna, hvar eru nú þeir átthagar ljónskálfanna, þar sem ljónid og ljónsmædran gengu med hvolpum sínum, án þess nokkur styggdi þau? 13. Þar sem ljónid reif sundur dýrin handa hvolpum sínum, og drap þau nidur handa ljónsmædrunum, fyllti hellra sína med herfángi, og bæli sín med sundurrifinni bráð? 14. Sjá, eg rís í gégn þér, segir Drottinn allsherjar; eg vil brenna þína hervagna í eldi, og sverdid skal drepa nidur þína ljónskálfa; eg vil taka þitt herfáng burt af jørdunni, og raust þinna sendiboda skal ekki heyrast hédan í frá.

## 3. Kapítuli.

*Framhald um eydileggíngu Niniveborgar.*

1. Vei hinni blódseku borg, sem øll er full af vélum og ofríki, og sem ekki lætur lausa bráð sína! 2. Nú heyrist smellur svipanna og gángur hjólanna; nú heyrist til rennandi hesta og skokkandi vagna; 3. nú sjást riddarar, sem hafa á lopti blikandi sverd og leiptrandi spjót; nú sjest fjøldi valfallinna manna, slík mergd líka, ad ekki verdur tølu ákomid, og menn falla um mannabúkana. 4. Allt þetta kémur af saurlifnadi þessarar hinnar frídu og gøldróttu skjækju, sem hefir seidt ad sér heidíngjana med sinni lostasemi, og þjódirnar med sínum gøldrum. 5. Sjá þú, eg fer í móti þér, segir Drottinn allsherjar; eg vil bregda klædafaldi þínum upp á høfud þér, og sýna þjódunum þína nekt, og ríkjunum þína svívirdíngu; 6. eg skal kasta á þig vidurstygdum, gjøra þig smánarlega, og láta þig verda ødrum ad varnadarvíti, 7. svo allir, sem þig sjá, skulu flýa frá þér, og segja: Ninive er í eydi løgd! hvørr vill aumkva hana? hvar á eg ad leita þeirra, sem vilji hugga þig?

8. Ertu betri en Nó-Ammons-borg, sem lá út í vatnsføllum, og vøtn allt í kríng um hana? Hafid var hennar vørn, og múrveggir hennar stódu upp úr hafinu; 9. Blálendíngar og Egyptalandsmenn, svo margir ad ekki vard tølu ákomid, voru hennar styrkur, Mórlendíngar og Libýumenn veittu henni hjálp. 10. Og þó vard hún ad fara í útlegd medal hinna herteknu; úngbørn hennar voru rotud til dauds á øllum strætamótum, hlutum var kastad um hina gøfugustu menn í borginni, og allir hennar høfdíngjar voru járnum fjøtradir. 11. Á hinu sama skaltú (Niniveborg!) einnig bergja, og audvirdileg verda; þú skalt eins leita hælis hjá óvinum.

12. Øll þín varnarvirki eru sem fíkjutré med árfíkjum; séu trén skekin, falla fíkjurnar þeim í munn, sem þær vill eta. 13. Líttu á! menn þínir, sem þú hefir, eru eins og kvennmenn; landshlidum þínum mun upplokid verda fyrir óvinum þínum, og eldur skal eyda þínum slagbrøndum. 14. Aus vatn, til ad hafa medan á umsátrinu stendur! bæt um varnarviki þín! gakk út í bleytuna, elt leirinn, og gjør ad tígul-ofninum! 15. Þar skal eldurinn eyda þér, og sverdid uppræta þig; eldurinn skal eyda þér, eins og hann eydir grasvørgum. Fjølga þú mønnum hjá þér, eins og eingisprettum, fjølga þú þeim, eins og grashoppum: 16. lát kaupmenn þína verda fleiri, en stjørnur eru á himni; þeim mun fara sem grashoppum, er breida sig út um allt, og fljúga svo burt. 17. Høfdíngjar þínir eru eins og eingisprettur, og høfudsmenn þínir eins og grasflugna sægur, þeirra er liggja á akurgérdunum, þegar kaldt er, en þegar sólin kémur upp, fljúga þær burtu, svo ekki þekkist aptur sá stadur, hvar þær hafa verid. 18. Þínir hirdar sofa, Assyríu konúngur! þínir kappar hvílast; menn þínir eru hér og hvar á dreif um fjøllin, og eingi smalar þeim. 19. Eingi

svínn fæst vid meinsemd þinni, sár þitt er ólæknandi. Allir þeir, sem heyra fregnina um þig, klappa lof í lófa; því hvørjum hefir ekki vondska þín ávallt til meins verid?

# Spámadurinn Habakuk.

## 1. Kapituli.

Spámadurinn kvartar fyrir Gudi yfir ógudlegu athæfi Gydínga; Gud svarar, ad hann vilji senda Kaldea til ad hegna þeim; Spámadurinn bidur Gydíngum vægdar, og ad yfirgángi Kaldea verdi aptrad.

1. Þetta er sá spádómur, sem opinberadur var Spámanninum Habakuk.

2. Hvørsu lengi skal eg kalla, Drottinn? og þú heyrir þó ekki; hve lengi skal eg kalla til þín um hjálp móti ofríkinu?? og þú hjálpar þó ekki. 3. Hví lætur þú mig sjá þetta hid illa athæfi? hví viltu sjá á slíka hørmúng? Kúgun og ofríki standa fyrir augum mér; þrættanir gánga, og deilur upp rísa. 4. Þess vegna verdur løgmálid kraptlaust, og mál manna verda ekki dæmd eptir sannindum; af því hinn ógudlegi situr um hinn rádvanda, fyrir þá søk koma fram rángsnúnir dómar.

5. Rennid augum til þjódanna, og litist um! Undrist og skélfist! því á ydar døgum vil eg þann atburd láta fram koma, sem þér eigi mundud trúa, þó ydur væri sagdur. 6. Því sjáid, eg vil reisa upp Kaldea, grimma þjód og ofstopafulla, sem fara um vída veröld til þess ad leggja undir sig þá bústadi, sem þeir eiga ekki. 7. Þeir eru hrædilegir og ógurlegir; þeir skeyta ekki réttindum eda dómsatkvædum. 8. Hestar þeirra eru frárri en Pardusdýr, og skjótari (skygnari) en úlfar á kvøldi, og riddarar þeirra hleypa þeim hermannlega; riddarar þeirra koma lángt ad, fljúgandi sem ørn á hræ. 9. Allir koma þeir til ad veita mønnum yfirgáng, (því) hugir þeirra standa til austurlanda; þeir raka saman herteknum mønnum, eins og sandi: 10. þeir hræda konúngana og spotta landshøfdíngjana; þeir hlæa ad øllum víggyrdtum borgum, hleypa upp jardhryggjum, og taka þær. 11. Þá ver þeim hugur, svo þeir fara oflángt fram, og verda sakfallnir; svo fer hvørjum, sem treystir á mátt sinn og megin.

12. Ertú ekki, Drottinn, frá øndverdu minn Gud, minn hinn heilagi? Vér munum eigi med øllu undir lok lída, Drottinn, þú hefir sett hann (Babelskonúng) til ad refsa; þú, vort hellubjarg, hefir ætlad hann oss til hegníngar. 13. Þín augu eru ofhrein til þess, ad þau líti á hid vonda; þú gétur eigi horft á eymdina. Hví skyldir þú mega líta svikarana? hví skyldir þú þegja, þegar hinn ógudlegi uppsvelgir sér rádvandara mann? 14. Hví skyldir þú láta breyta vid mennina, eins og vid sjáfarfiska, eins og vid þær sképnur, sem eingan lávard eiga? 15. Babels konúngur dregur alla menn upp á aungli sínum, svíptir þeim í vørpu sína, og safnar þeim í net sitt; og yfir því gledst hann og fagnar. 16. Þess vegna færir hann vørpu sinni fórnir, og reykelsi neti sínu; því med þessum veidarfærum hefir hann aflad sér góds hlutar og ríflegs matar. 17. Á hann ad tæma vørpu sína til þess ad drepa menn án afláts og vægdarlaust?

## 2. Kapítuli.

*Gud birtir Spámanninum, ad Kaldeum skuli refsad verda fyrir þeirra ásælni, yfirgáng og ofríki.*

1. Eg héldt vørd, og stód uppi á vard-
borginni, og skygndist um, til ad sjá hvad hann
mundi opinbera mér, og hvørju eg skyldi svara
því, sem móti mér yrdi haft. 2. Þá svaradi
Drottinn mér, og sagdi: Skrifa þú spádóminn
upp, og graf hann á spjøld svo skýrt, ad lesa megi
vidstødulaust; 3. því spádómurinn hefir enn fyrir
sér tiltekna tíd, en hann skundar ad takmark-
inu, og mun eigi bregdast; og þó hann dvelji
(dragist), þá vænt hans, því hann mun vissulega
framkoma, og ekki undan lída. 4. Tak eptir
því, ad sá sem er vantrúadur, hans sál mun
ekki þar af farsæl verda; en sá sem trúir rétti-
lega, hann mun sæll verda. 5. Því sídur
gétur dramblátur madur, sem lætur vínid gjøra
sig vitstola, lánggjædur ordid: hann, sem sperr-
ir sundur gin sitt, eins og myrkra ríkid, er ó-
sedjandi, sem daudinn sjálfur, safnar til sín
øllu fólki, og dregur ad sér allar þjódir. 6.
Sannlega munu allar þessar þjódir (eitt sinn)
kveda um hann kvædi og hádvísur í ordskvid-
um, á þessa lund: „Vei þeim, sem rakar sam-
an ófrjálsu fé (hve lengi mun hann ad því
búa?) og hledur á sig syndá byrdi!" 7. Sjá,
skyndilega munu þeir menn upp rísa, sem
munu plága þig, og þeir upp vakna, sem munu
þreyngja ad þér, og þú skalt verda þeim ad
herfángi. 8. Søkum þess þú hefir rænt svo
margar þjódir, skulu allar þær þjódir, sem ept-
ir eru, ræna þig, fyrir þau manndráp og
þad ofríki, sem þú framdir í landinu og borg-
inni, og á øllum, sem þar bjuggu (búa). 9.
Vei þeim, sem sækist eptir ranngum ávinníngi
fyrir sitt hús, til þess hann géti bygt sér hreid-
ur hátt uppi, og verid óhultur fyrir óvin sín-
um. 10. Þú tókst upp þad rád, sem vard
þínu húsi til smánar, þegar þú afmádir marg-
ar þjódir, og stofnadir sálu þinni í háska.
11. Steinninn í veggnum vitnar þad, og þver-
tréd í húsinu ber þad med honum. 12. Vei þeim,
sem byggir upp nokkurn stad med manndráp-
um, eda leggur grundvøll til nokkurrar borgar
med ránginduм! 13. Er þad ekki rádstøfun
Drottins allsherjar, ad þjódirnar vinna sig
módar vid eldinn, og mennirnir þreyta sig á
hégómanum? 14. til þess ad jørdin verdi
eins full af vidurkénníngu Drottins dýrdar,
eins og sjórinn er fullur af vøtnunum. 15.
Vei þér, sem skeinkir á fyrir þinn náúnga! sem
byrlar ødrum brennandi drykk, og gjørir þá
ølvada, til þess þú meigir sjá þeirra svívird-
íngu; 16. Þú skalt mettur verda af vanvirdu,
en ekki af heidri. Drekk þú nú einnig, svo
þín smán verdi opinber! Bikarinn í hægri
hendi Drottins fer nú í kríng til þín, svo þú
skalt taka vansa fyrir vegsemd. 17. Þad of-
ríki, sem þú hafdir í frammi vid Líbanons-
fjall, skal á þér bitna; óarga dýr skulu ásækja
þig fyrir þau manndráp og þad ofríki, sem þú
framdir í landinu og borginni, og á øllum,
sem þar bjuggu. 18. Hvad stodar skurdgod-
id, sem smidurinn hefir úthøggvid? edur hid
steypta líkneski, og sá, sem kénnir lygar einar?
því smidurinn hefir treyst á þad smídi, sem
hann sjálfur tilbjó, þá hann smídadi mállaus god.
19. Vei þeim, sem segir til trésins: „rís upp",
og til hins mállausa steins: „vakna þú".
Mun hann géta kénnt? Nei, þó tréd og steinn-
inn séu gulli og silfri búin, þá er þó einginn
andi í þeim. 20. En Drottinn er í sínu hei-
laga musteri; øll jørdin þegi fyrir hans augliti!

## 3. Kapítuli.

*Lofkvædi Habakuks.*

1. Lofkvædi Habakuks Spámanns, eptir
saungvísunum:
2. Drottinn, eg heyrdi þitt atkvædi, og skélfd-

ist. Haldt, Drottinn, þínu verki vid lýdi, hvørsu
sem árin breytast! gjør þad opinbert, þegar
stundir framlída! Minnst á miskunsemina midt
í reidinni! 3. Gud kom frá Teman, sá hinn
heilagi kom frá Paransfjalli — (hvíld!) —
Hans vegsemd byrgdi himininn, og hans ljómi
fyllti jørdina. 4. Hans skin var sem ljós;
geislar støkudu úr hendi hans; þar var hans
dýrd fólgin. 5. Framm undan honum gékk
drepsótt, og vargar fylgdu á eptir honum. 6.
Hann nam stadar, og jørdin titradi; hann lit-
adist um, og þjódirnar skulfu; þau hin eilífu
fjøllin klofnudu sundur, hinar fornu hædirnar
sukku nidur, þar sem hann gékk fram fordum
daga. 7. Eg sá býli Blálendínga í ángist;
tjøldin í Midíanslandi bifudust. 8. Ertú, Drott-
inn, reidur vatnsføllunum? Er þín brædi upp-
tendrud móti fljótunum? þín heipt í gégn haf-
inu? þar sem þú ekur med hesta þína á þínum
sigurvagni. 9. Þinn bogi var nakinn, og lagd-
ur til hæfis; veldissprotar Amorítauna brotn-
udu — (hvíld!) — Jørdin lætur vatnsføll fram-
spretta. 10. Fjøllin sáu þig, og skulfu; steypi-
regn dundi yfir: vatnageimurinn lét heyra sína
raust, og rétti hendur sínar í lopt upp. 11.
Sól og túngl stódu kyrr á stødvum sínum: þau
hurfu fyrir ljósi þinna ørva, og fyrir ljóman-
um þinna leiptrandi spjóta. 12. Í þinni reidi
gékkst þú fram í landinu, og nidurtródst þjód-
irnar í þinni heipt. 13. Þú gékkst fram, til
hjálpar þínu fólki, til hjálpar þínum smurda;
þú lagdir ad velli flokksforíngja hinna ógud-
legu, og afklæddir þá frá hvirfli til ilja —
(hvíld!) —. 14. Med stafsprotum hans (þíns
smurda, eda, Ísraelslýds) gégnumstakkst þú
høfud hershøfdingja þeirra, er geystust fram
til ad tvístra oss; þeir hløkkudu til, ad géta líka
sem uppetid aumíngjann í hreysi sínu. 15. Þú
fórst med hesta þína gégnum hafid, gégnum
mørg ólgufull vøtn.

16. Þá eg heyrdi (atkvædi Drottins), titr-
adi mitt hjarta: mínar varir skulfu vid hans
raust: hrollur kom í mín bein, og eg vard skjálf-
andi á fótum; því eg verd ad þreya til þess
hørmúngartíma, ad sá, sem á ad þreyngja þjód-
inni, gengur framm móti henni. 17. Þá mun
fíkjutréd ekki blómgast, vínvidurinn eingan ávøxt
bera, gródi vidsmjørstrésins bregdast, akurlønd-
in einga fædu géfa; þá mun saudféd tekid verda
úr fjárhúsunum, og einginn uxi eptir verda í
nautahúsunum. 18. Samt vil eg gledja mig í
Drottni, og fagna í Gudi, Frelsara mínum.
19. Drottinn hinn alvaldi er minn styrkur, hann
gjørir mínar fætur, sem hindarinnar, og lætur
mig komast upp á mínar hædir; þá skal eg
syngja lofsaung á mitt hljódfæri.

# Spámadurinn Seffanías.

## 1. Kapítuli

Seffanías spáir Júdaríki eydileggíngu søkum þeirrar
hjáguda dýrkunar, sem þar drottnadi.

1. Þetta er ord Drottins, sem hann tal-
adi til Seffaníass Kúsísonar, Gedalíusonar,
Amaríusonar, Esekíassonar, á døgum Jósíass
Júda Konúngs Amonssonar. 2. Eg vil taka
allt gjørsamlega burt úr landinu, segir Drott-
inn; 3. eg vil taka burt menn og sképnur: eg
vil taka burt fugla himinsins og fiska sjáfarins,

hneixlanirnar ásamt med þeim ógudlegu: eg vil afmá mennina í landinu, segir Drottinn. 4. Eg vil útrétta mína hønd móti Júdaríki, og móti øllum þeim, sem búa í Jerúsalemsborg; eg vil afmá af þessum stad eptirleifar Baals, nafn blótgodanna ásamt med kénnimønnunum: 5. eg vil afmá þá, sem uppi á húsþekjum falla fram fyrir himinsins her (himintúnglunum): þá sem falla fram fyrir Drottni og sverja vid hann, en sverja þó undir eins vid Malkom (= Mólok): 6. þá sem eru fallnir frá Drottni, og þá sem hvørki leita Drottins, né adspyrja hann.

7. Þegi þú fyrir augliti Drottins hins alvalda! því hegníngardagur Drottins er nálægur: Drottinn hefir efnt til fórnarveitslu og samankallad sína bodsmenn. 8. Á fórnarveitsludegi Drottins vil eg heimsækja landshøfdíngjana og syni Konúngsins, og alla þá sem bera útlendskan klædnad. 9. Á þeim degi vil eg heimsækja sérhvørn þann, er brýtst inn í hús annara, og þá sem fylla hús lánardrottna sinna med ofbeldi og svikum. 10. Á þeim degi, segir Drottinn, skal heyrast neydarhljód frá Fiskahlidinu, sorgaróp í hinum hluta borgarinnar, og mikid kvein á hædunum. 11. Kveinid, þér sem búid í Maktes a), því kaupmanna lýdurinn verdur afmádur, og øllum þeim eydt, sem silfri safna. 12. Á þeim tíma vil eg rannsaka Jerúsalemsborg med skridljósum, og heimsækja þá sem liggja á dreggjum sínum b), og segja í sínum hjørtum: „Drottinn gjørir hvørki gott né íllt". 13. Audæfi þeirra skulu verda ad herfángi, og hús þeirra ad audn; þeir skulu byggja hús, en ekki búa í þeim, planta víngarda, en ekki drekka þad vín, sem af þeim kémur. 14. Hinn mikli dagur Drottins er nálægur; nálægur er hann, og hradar sér mjøg; sárlegt kvein skal heyrast á degi Drottins: þá skal jafnvel kappinn æpa. 15. Sí dagur er dagur reidinnar, dagur neydar og þreyngíngar, dagur tjóns og eydileggíngar, dagur myrkurs og dimmu, dagur skýa og þoku, 16. dagur lúdra og herópa gégn víggyrdtum borgum og háfum múrveggjum. 17. Eg skal þrøngva mønnum svo, ad þeir skulu gánga sem blindir: því þeir hafa syndgast í móti Drottni; blódi þeirra skal úthellt verda, sem dupti, og hræum þeirra (út kastad), sem saur. 18. Hvørki skal silfur þeirra né gull þeirra fá bjargad þeim á reididegi Drottins, heldur skal allt landid eydast fyrir eldi hans vandlætíngar: því tjón og bráda eydileggíngu mun hann koma láta yfir alla landsins innbyggjendur.

## 2. Kapítuli.

Seffanías áminnir til idranar: segir, ad Guds hegníng muni og koma yfir Filistaland, Móabsland, Ammonsland, Blaland og Asyríuland.

1. Rannsaka þig sjálfa, prófa þig sjálfa, þú blygdunarlausa þjód, 2. ádur en dómurinn verdur framkvæmdur — tíminn flýgur burt, eins og sádir (fyrir vindi) —, ádur enn Drottins brennandi reidi kémur yfir ydur, ádur enn reididagur Drottins kémur yfir ydur. 3. Leitid Drottins, allir þér lítillátu í landinu, sem breytid eptir hans løgmáli! ástundid réttlæti, ástundid lítillæti! ef svo mætti verda, ad ydur yrdi borgid á reididegi Drottins. 4. Því Gasaborg skal yfirgéfin verda, og Askalonsborg í eydi látin; innbyggjendur Asdodsborgar skulu útreknir verda á midjum degi, og Ekronsborg umturnud. 5. Vei ydur, sem búid í sjóbygdunum; þú Kreta þjód! atkvædi Drottins í gégn ydur er svo látandi: þú Kanverjaland, þú Filistaland! eg vil afmá þig, svo þar

V. 11. a. Annadhvort einnhvørr hluti Jerúsalemsborgar, eda stadur nálægt henni. V. 12. b. Þ. e. Þá sem eru andvaralausir um sinn hag.

skal eingi búa. 6. Sjáfarbygdin skal verda ad beitarlandi hjardmanna, og ad hagagardi fyrir saudfé. 7. Sú bygd skal falla til þeirra, sem eptir verda af Júdaríkis mønnum; þeir skulu beita þar fé sínu, en liggja á kvøldum í húsum Askalonsborgar; því Drottinn, Gud þeirra, mun vitja þeirra, og leida þá aptur úr herleidíngunni. 8. Eg hefi heyrt bríxlyrdi Móabsmanna og smánaryrdi Ammonsmanna, er svívirdtu mitt fólk, og fóru hródugir yfir landamerki þess. 9. Þess vegna, svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn allsherjar, Ísraels Gud, skal Móabsland verda sem Sódóma, og Ammonsland sem Gómorra, þau skulu verda ad þyrnirunni, ad saltgrøf, ad óbygdri audn til eilífrar tídar. Leifar míns fólks skulu ræna þá, eptirleifar míns lýds skulu eignast lønd þeirra. 10. Þetta skal þá henda fyrir drambsemi sína, ad þeir svívirdtu og mikludust yfir fólki Drottins allsherjar. 11. Ógurlegur skal Drottinn verda þeim, þegar hann fer ad afmá alla gudi jardarinnar, og þegar allir innbúar fjarlægustu landa falla fram fyrir honum, hvørr á sínum stad. 12. Einnig þér, Blálendíngar, skulud verda einir af þeim, sem fyrir mínu sverdi falla. 13. En mun Drottinn útrétta sína hønd móti nordrinu, og afmá Assýríu Konúng; hann mun leggja Ninive í eydi, og gjøra hana þurra, sem eydimørk. 14. Midt í henni skulu hjardir liggja, og flokkar allskonar dýra: sarpgæsir og íglar skulu liggja á næturnar uppi á súlnaknøppunum: (dýra-) klidurinn skal ymja í gluggunum: vegs ummerki eydileggíngarinnar skulu sjást á þrøskuldunum, því Sedrusvidarþilin skulu verda nidurrifin. 15. Þannig skal hin ofkjætisfulla, andvaralausa borg útleikin verda, hún sem sagdi í sínu hjarta: „eg stend enn, en engin borg ønnur". Hvørninn er hún þá ordin ad audn og ad dýrabæli? Hvørr sem geingur framm hjá henni, skal blýstra, og hrista hønd sína.

## 3. Kapítuli.

*Seffanías lýsir sidaspillíngu Gydínga; þeir vildu ekki skipast vid þær áminníngar og bendíngar, sem Gud hafdi géfid þeim, og því hlaut hann ad hegna þeim. Miskunsemi Guds vid sitt fólk.*

1. Vei hinni þverúdarfullu, saurgudu og ofríkisfullu borg! 2. Hún hlýdir eingum áminníngum, hún tekur eingri hirtíngu; hún treystir ekki Drottni, og nálægir sig ekki Gudi sínum. 3. Høfdíngjar þeir, sem í borginni eru, eru sem grenjandi ljón; dómendur hennar eru sem úlfar á kvøldum, þeir er ekkért leifa til morguns; 4. Spámenn hennar eru hégómlegir og trygdalausir menn; kénnimennirnir vanhelga helgidóminn, og brjála løgmálinu.

5. Drottinn, hinn réttláti, er midt í borginni; hann gjørir ekkért rángt: á morgni hvørjum leidir hann sitt løgmál í ljós, og lætur þad aldrei hjá lída; en hinn ógudlegi kann ekki ad skammast sín. 6. Eg afmádi þjódirnar: þeirra múrveggir urdu nidurbrotnir: eg lagdi stræti þeirra í eydi, svo þar var einginn á ferd: borgir þeirra urdu herjadar, svo þar fannst einginn madur, og einginn bjó þar. 7. Eg sagdi: nú muntu vilja óttast mig, nú muntu vilja láta þér segjast, svo þinn bústadur verdi eigi afmádur, med øllu því sem eg hefi géfid þér! Nei, þad er ødru nær! þeir eru kostgjæfir í því ad fremja allskonar íllskuverk. 8. Bídid þess vegna, segir Drottinn, eptir þeim degi, þá eg mun upp rísa til rána; því þad er mitt ásett rád, ad eg vil samansafna þjódum og stefna saman Konúngaríkjum, til þess ad úthella yfir þá minni heipt, allri minni brennandi reidi: því fyrir eldi minnar vandlætíngar skal allt landid verda eydilagt.

9. Þá vil eg géfa þjódunum hreinar varir, svo allir skulu ákalla nafn Drottins og

þjóna honum samhuga. 10. Handan frá Blálands vatnsføllum skulu mínir tilbidjendur, mitt sundurdreifda fólk færa mér gáfur. 11. Á þeim degi skaltu ekki brjóta móti mér med neinum þeim verkum, sem þú þurfir ad skammast þín fyrir: því þá verd eg búinn ad rydja þeim burtu frá þér, sem ofkættust af þínum mikilleik, og þá skaltu ekki framar ofmetnast af mínu heilaga fjalli. 12. Eg vil láta í þér eptir verda lítillátt og audmjúkt fólk, sem vona skal á nafn Drottins. 13. Þeir, sem eptir verda af Ísraelsmønnum, skulu eingi rángindi fremja, og ekki tala lygar: í munni þeirra skal ekki finnast svíksøm túnga; heldur skulu þeir vera sem sú hjørd, sem gengur á beit og liggur, án þess nokkur styggi hana. 14. Gled þig, Síons dóttir! kirja þú upp, Ísraels lýdur! vert glød og fagna af øllu hjarta, Jerúsalems dóttir! 15. Drottinn hefir afmád þinn dóm, og útrýmt óvin þínum. Drottinn, Konúngur Ísraelsmanna, er hjá þér; þú skalt á eingu illu kenna framar. 16. Á þeim degi mun sagt verda til Jerúsalemsborgar, „óttast ekki!", og til Síonsfjalls, „lát ekki hugfallast!". 17. Drottinn, þinn Gud, er hjá þér, hinn máttugi Frelsarinn; hann skal fagna yfir þér med gladværdarsaung. 18. Eg vil saman safna þeim, sem útilokadir voru frá hinum helgu samkomum; og þú skalt laus verda vid þad, sem var þér til byrdi og vanvirdu. 19. Sjá þú! á þeim tíma skal eg eiga erindi vid alla þá, sem þig plágudu; eg vil hjálpa hinum høltu, samansafna hinum tvístrudu; eg skal gjøra þá loflega og nafnfræga í øllum þeim løndum, hvar þeir ádur voru vanvirdtir. 20. Á þeim tíma vil eg leida ydur híngad, og á þeim tíma saman safna ydur: því eg vil gjøra ydur nafnfræga og loflega medal allra þjóda í heimi, þegar eg, ad ydur ásjáendum, leidi heim aptur þá af ydur, sem herleiddir hafa verid, segir Drottinn.

# Spámadurinn Haggaí.

## 1. Kapituli.

Gydíngar uppbyggja musteri Drottins, eptir áminníngu Haggaí Spámanns, (Esd. 5, 1—2. 6, 14).

1. Á ødru ári Daríí Konúngs, í hinum sjøtta mánudi, hinn fyrsta dag mánadarins, taladi Drottinn fyrir munn Haggaí Spámanns til Serúbabels Sealtíelssonar, landshøfdíngja Júdaríkis, og til Jósúa Jósadakssonar, hins ædsta kennimanns, svofeldum ordum: 2. Svo segir Drottinn allsherjar: þetta fólk segir, „enn er ekki tími kominn til ad uppbyggja Drottins hús". 3. Þess vegna taladi Drottinn þannig fyrir munn Haggaí Spámanns: 4. er þá tími fyrir ydur ad búa í þiljudum húsum, medan þetta hús er látid standa í eydi? 5. og nú, svo segir Drottinn allsherjar, takid eptir, hvørninn fyrir ydur fer! 6. Þér sáid miklu, en safnid litlu; þér etid, en verdid þó eigi saddir; þér drekkid, en verdid þó eigi afþyrstir; þér klædid ydur, en verdid þó ekki varmir; þó einhvørjum ydar grædist fé, þá er sem hann láti þad í gøtótta púngju. 7. Svo segir Drottinn allsherjar: takid eptir, hvørninn fyrir ydur fer! 8. Farid upp á fjallid, sækid vidinn,

og byggid húsid! þad skal vera mér þakknæmi-
legt, og þar skal eg sýna mig dýrdlegan, seg-
ir Drottinn. 9. Þér væntid mikils, en fáid
lítid í adra hønd; og þó þér flytjid þad heim,
þá blæs eg þad í burt; og hvørsvegna? segir
Drottinn allsherjar; vegna míns húss, sem þér
látid standa í eydi, medan sérhvørr ydar flýtir
sér med sitt hús. 10. Þess vegna er himin-
inn, sem uppi yfir ydur er, hættur ad géfa
ydur døgg, og jørdin sinn gróda; 11. því
eg hefi kallad þurk yfir jørdina og fjøllin, yfir
kornid, vínberjaløginn og vidsmjørid, og yfir
þad sem jørdin af sér géfur, yfir menn og sképn-
ur, og yfir allan handa afla.
12. Þá hlýddi Serúbabel Sealtíelsson og
Jósúa Jósadaksson, hinn ædsti kénnimadur, og
allt þad er eptir var ordid fólksins, røddu
Drottins, Guds þeirra, og ordum Haggaí
Spámanns, med því Drottinn, Gud þeirra,
hafdi sendt hann; og fólkid óttadist Drottinn.
13. En er Haggaí, sem var sendibodi Drott-
ins og flutti Drottins erindi, sagdi til fólksins
þeim ordum, „eg er med ydur, segir Drottinn",
14. þá vakti Drottinn hug Serúbabels Sealtí-
elssonar, landshøfdíngja Júdaríkis, og Jósúa
Josadakssonar, hins ædsta kénnimanns, og þess
fólks, sem þá var eptir ordid: svo ad þeir
fóru til og unnu ad húss byggíngu Drottins
allsherjar, þeirra Guds. 15. Þad var á tutt-
ugasta og fjórda degi hins sjøtta mánadar, á
ødru ári Daríí Konúngs.

## 2. Kapítuli.

Vegsemd hins sídara musteris. Haggaí sýnir, ad fórn-
færíngar Gydínga á því nýbygda brennifórnar-
altari (Esd. 3, 1—3) gátu ekki afsakad undandrátt
þeirra med musteris byggíngunna; útskýrir ord sín
fyrir Serúbabel.

1. Á tuttugasta og fyrsta degi hins sjøunda
mánadar taladi Drottinn þessi ord til Haggaí
Spámanns: 2. Tala þú þessum ordum til
Serúbabels Sealtíelssonar, landshøfdíngja Júda-
ríkis og til Jósúa Jósadakssonar, hins ædsta
kénnimanns, og til þess fólks, sem eptir er
ordid: 3. Hvørr er sá af ydur eptir ordinn,
er séd hefir þetta hús í sinni fyrri vegsemd?
og hvørsu virdist ydur þad nú? er þad ekki
einskisverdt í ydar augum hjá hinu? 4. Vert
samt hughraustur, Serúbabel! segir Drottinn;
vert øruggur, Jósúa Jósadaksson, hinn ædsti
kénnimadur! vert hughraustur, allur landslýdur-
inn! segir Drottinn; haldid áfram verkinu, því
eg er med ydur, segir Drottinn allsherjar, 5.
samkvæmt þeim sáttmála, er eg gjørdi vid yd-
ur, þá þér fórud út af Egyptalandi; minn
andi skal vera medal ydar, óttist eigi! 6. Því
svo segir Drottinn allsherjar: innan skamms
vil eg enn eitt sinn hræra himin og jørd, sjó-
inn og þurrlendid; 7. já, eg vil hræra allar
þjódir, svo ad gérsemar allra þjóda skulu híng-
ad koma, og eg vil gjøra þetta hús hid dýrd-
legasta, segir Drottinn allsherjar; 8. mitt er silfr-
id, mitt er gullid, segir Drottinn allsherjar. 9.
Dýrd þessa hins sídara hússins skal meiri vera,
en hins fyrra var, segir Drottinn allsherjar;
og á þessum stad vil eg frid géfa, segir Drott-
inn allsherjar.
10. Á tuttugasta og fjórda degi hins níunda
mánadar, á ødru ári Daríí, taladi Drottinn
þessum ordum til Haggaí Spámanns: 11.
Svo segir Drottinn allsherjar: legg fyrir kénni-
mennina svolátandi lagaspurníng: 12. „ef
madur ber heilagt kjøt a) í kyrtilskauti sínu,
og snertir sídan braud, einhvørn rétt matar,
vín, vidsmjør, eda nokkud annad matarkyns
med kyrtilskautinu, verdur þetta þá heilagt af
því? Kénnimennirnir svørudu og søgdu: nei.
13. Þá spurdi Haggaí: ef nokkurr, sem ordinn
er óhreinn, af því hann hefir snortid lík, kém-

V. 12. *a.* Heilagt kjøt, þ. e. fórnakjøt sem helgadist af altarinu.

ur vid eitthvad af þessu, verdur þad þá óhreint?
Kénnimennirnir svørudu og søgdu: já, þad
verdur óhreint. 14. Þá svaradi Haggaí og
sagdi: eins er um þetta fólk og þenna lýd, í
mínum augum, segir Drottinn; eins er um allt,
sem þeir hafa tekid sér fyrir hendur ad gjøra,
og þad sem þeir hafa fórnfært þar a), þad er
óhreint. 15. Og nú, rennid nú huga ydrum
frá þessum degi og til undanfarins tíma, ádur
en steinn var lagdur á stein ofan í musteri
Drottins: 16. kjæmi nokkurr, ádur enn þetta
vard, ad kérfaskrúfi, sem gjøra skyldi tuttugu
(sképpur korns), þá urdu þar tíu; kjæmi hann
ad vínlagarkéri, og ætladi ad ausa fimmtíu
(kønnur víns) af víntrødinni, þá urdu þar eigi
fleiri en tuttugu. 17. Eg senda ydur þá plágu,
ad kornid svidnadi og gulnadi, og allt ydar and-
virki vard hagli lostid, og þó snéri sér einginn
ydar til mín, segir Drottinn. 18. Rennid nú
huga ydrum frá þessum degi og til undanfar-
ins tíma, frá hinum tuttugasta og fjórda degi
hins níunda mánadar; rennid huga ydrum til
þess tíma, sem lidid hefir frá þeim degi ad
musteri Drottins var grundvallad! 19. Eru
enn þá frækorn í fordabúrunum? Hvørki vín-
vidur né fíkjur, granatatré né vidsmjørsvidur
bera ávøxt! En upp frá þessum degi vil eg
blessun géfa.
20. Í annad sinn taladi Drottinn til Haggaí,
hinn tuttugasta og fjórda dag sama mánadar,
og sagdi: 21. Tala þú þessum ordum til Serú-
babels, landshøfdíngja í Júdaríki: Eg vil hræra
himin og jørd, 22. eg vil umvelta veldisstól-
um konúngsríkjanna, og í eydi leggja hin vold-
ugu ríki þjódanna; eg vil umbilta vøgnum og
þeim sem á þeim sitja: hestar og riddarar skulu
nidur falla, hvørr fyrir annars sverdi. 23.
Á þeim degi, segir Drottinn allsherjar,
vil eg taka þig, Serúbabel Sealtíelsson, minn
þjón! og láta þig vera sem annan innsigl-
is hríng, því eg hefi útvalid þig, segir Drott-
inn allsherjar.

# Spámadurinn Sakarías.

## 1. Kapítuli.

Sakarías (Esd. 5, 1. 6, 14) varar Gydínga vid vond-
um dæmum forfedra þeirra; fær í einni sýn vitrun
um uppbyggíngu musterisins.

1. Á áttunda mánudi annars árs Daríí,
taladi Drottinn þessum ordum til Spámannsins
Sakaríass Barakíasonar, Iddósonar: 2. Drott-
inn var stórlega reidur forfedrum ydar. 3. Seg
þess vegna til (nidja) þeirra: Svo segir Drott-
inn allsherjar: snúid ydur til mín, segir Drott-
inn allsherjar, þá vil eg snúa mér til ydar,
segir Drottinn allsherjar. 4. Verid ekki sem
forfedur ydar, sem hinir fyrri Spámenn áminntu
med svofeldum ordum, „svo segir Drottinn al-
valdur, snúid ydur frá ydar vondum vegum og
frá ydar illum athøfnum", en hlýddu þó ekki,
og gáfu aungvan gaum ad mér, segir Drott-
inn. 5. Ydar fedur, hvar eru þeir? og Spá-
mennirnir, géta þeir alltaf lifad? 6. En mín
ord og atkvædi, þau er eg lét mína þjóna, Spá-
mennina kunngjøra, hafa þau ekki komid fram
á forfedrum ydrum? svo þeir hefdu mátt snúa

V. 14. a. Þar, á brennifórnar altarinu (Esd. 3, 1—3.)

sér og segja: „eins og Drottinn allsherjar hafdi
ásett sér ad gjøra vid oss eptir vorri breytni
og athøfnum vorum, eins hefir hann og vid
oss gjørt".
7. Á hinum tuttugasta og fjórda degi hins
ellefta mánadar, þad er mánudurinn Sebat, á
ødru ári Daríi, útgékk ord Drottins til Sak-
aríass Spámanns Barakíasonar, Iddósonar, á
þenna hátt: 8. Eg sá sýn á náttarþeli, og sá
hvar madur nokkur sat á raudum hesti, hann
héldt kyrru fyrir á medal myrtustrjánna í dal-
verpi nokkuru; ad baki honum voru raudir,
jarpir og hvítir hestar. 9. Þá spurdi eg:
hvørjir eru þessir, herra? Engill sá, er vid mig
taladi, sagdi til mín: eg skal sýna þér, hvørjir
þessir eru. 10. Þá svaradi madurinn, sem
héldt kyrru fyrir medal myrtustrjánna, og sagdi:
þessir eru þeir, er Drottinn hefir sendt til ad
fara út um verøldina. 11. (Þessir menn)
svørudu þá Engli Drottins, þeim er héldt kyrru
fyrir medal myrtustrjánna, og søgdu: vér høf-
um farid um alla verøldina, og sjá, øll jørdin
er í ró og kyrd. 12. Þá svaradi Engill Drott-
ins og sagdi: hve lengi skal þad vara, ad þú
ekki miskunir þig yfir Jerúsalemsborg og yfir
borgir Júdaríkis, hvørjum þú hefir reidur ver-
id þessi sjøtíu ár? 13. Drottinn svaradi þeim
Engli, er vid mig taladi, med blídum ordum og
huggunarríkum. 14. Engillinn, sem vid mig
taladi, sagdi þá til mín: kunngjør og seg: Svo
segir Drottinn allsherjar: eg vil rétta hlut Jerú-
salemsborgar og Síonsfjalls med stórri vand-
lætíngu; 15. en eg er stórum reidur hinum
andvaralausu heidíngjum: því þegar eg lét (Gyd-
ínga) kénna lítid eitt á reidi minni, þá juku þeir
á bøl þeirra. 16. Þess vegna segir Drottinn
svo: eg hefi snúid mér miskunsamlega til Jerú-
salemsborgar; þar skal hús mitt verda upp
byggt, segir Drottinn allsherjar, og mæliþráð-
ur lagdur verda yfir Jerúsalemsborg. 17.
Kunngjør enn framur, og seg: Svo segir Drott-
inn allsherjar: mínar borgir skulu ad nýu fljóta
í gædum; Drottinn mun aptur miskuna sig yfir
Síonsfjall, og vill enn hafa velþóknun á Jerú-
salemsborg.

## 2. Kapítuli.

Sakarías sjer fjøgur horn og fjóra smidi, er tákna, ad mótstødumenn Guds safnadar skuli af ædra krapti sigradir verda; hann sjer mæliþráð, sem merkir ad Gud vilji sjálfur vernda Jerúsalemsborg; hann upphvetur Gydínga, sem eptir voru í Babel, ad koma heim; spáir, ad heidíngar muni sameinadir verda vid Guds fólk.

1. Þá hóf eg upp augu mín, og sá hvar
fjøgur horn voru. 2. Eg spurdi Engilinn, er
vid mig taladi: hvad eru þessi? Hann svar-
adi mér: þetta eru þau horn, er tvístrad hafa Júda-
ríkis mønnum, Ísraelsmønnum og Jerúsalems-
borgar innbyggjendum. 3. Því næst lét Drott-
inn mig sjá fjóra smidi. 4. Eg spurdi til
hvørs eru þessir komnir? Hann svaradi:
þessir eru komnir til ad hræda þau horn, sem
tvístrudu Júdaríkis mønnum, svo ad einginn
þeirra mátti um frjálst høfud strjúka, og til
ad nidurvarpa hornum þeirra þjóda, er reistu
horn gégn Júdalandi, til ad tvístra því.
5. Enn hóf eg upp augu mín, bar þá fyrir
mig sýn: eg sá mann, sem héldt á mæliþrædi
í hendi sér. 6. Eg spurdi (þenna mann):
hvørt ætlar þú? Hann svaradi mér: eg fer ad
mæla Jerúsalemsborg, til ad vita hvørsu breid
og hvørsu laung hún er. 7. En er Engill sá,
er vid mig taladi, gékk fram (úr skóginum),
mætti hann ødrum Engli, 8. og sagdi til hans:
bregd vid skjótt, tala þú til þessa hins únga
manns, og seg: Jerúsalemsborg skal vera múr-
veggjalaus, søkum þess fjølda manna og sképna,
sem í borginni skal vera; 9. en eg vil vera sem
eldveggur umhverfis um hana, segir Drottinn, og
í midri borginni skal eg sýna mig dýrdlegan.

10. Upp, upp! Flýid úr Nordurlandinu a),
segir Drottinn, því eg vil útbreida ydur eptir
himinsins fjórum høfudáttum, segir Drottinn.
11. Upp, Síonsbyggjar, þér sem búid í Ba-
belsborg! fordid ydur! 12. Því svo segir
Drottinn allsherjar: „nú er vegsemd í vænd-
um". Hann hefir sendt mig til heidíngjanna,
sem ræntu ydur; því hvør sem ydur snertir,
sá snertir hans augastein. 13. Því sjá, eg
bregd hendi minni yfir þá, og þá skulu þeir
verda Israelsmønnum ad herfángi; og þá skul-
ud þér vidurkénna, ad Drottinn allsherjar hefir
sendt mig. 14. Kirja upp og fagna, Síons
dóttir! því sjá þú, eg kém, og vil búa midt í
þér, segir Drottinn.

15. Á þeim degi skulu Drottni bætast marg-
ir heidíngjar, og þeir skulu vera sem mitt eigid
fólk; eg vil búa midt á medal þín, og þú
skalt vidurkénna, ad Drottinn allsherjar hefir
sendt mig til þín. 16. Þá skal Drottinn
eignast Júdaríki í sinn hlut í hinu heilaga landi,
og hann skal enn nú hafa velþóknun á Jerú-
salemsborg. 17. Þegi allar sképnur fyrir aug-
liti Drottins, þegar hann geingur fram af sín-
um heilaga bústad!

## 3. Kapítuli.

*Frá Jósúa, hinum ædsta kénnimanni.*

1. Því næst lét hann mig sjá Jósúa, hinn
ædsta kénnimann; hann stód frammi fyrir
Engli Drottins, en til hægri handar honum
stód Satan, til þess ad ákjæra hann. 2.
Þá sagdi Drottinn til Satans: Drottinn ógni
(hamli) þér, Satan! Drottinn hamli þér, hann
sem hefir útvalid Jerúsalemsborg! Er þessi
madur (Jósúa) ekki eins og brandur úr báli
dreginn? 3. En Jósúa var í óhreinum klæd-
um, þar er hann stód frammi fyrir Englin-
um. 4. Þá tók Engillinn til orda, og mælti
til þeirra, sem stódu frammi fyrir honum:
færid hann úr hinum óhreinu klædum. Sídan
sagdi hann til hans: sjá þú! eg hefi tekid
þína synd frá þér, og færi þig í hátídabúníng.
5. Eg sagdi: látid hreinan ennidúk um høfud
hans. Þeir létu þá hreinan ennidúk um høf-
ud hans, þá þeir høfdu fært hann í klædin;
og Engill Drottins var þar vidstaddur. 6.
Nú vottadi Engill Drottins fyrir Jósúa, og
mælti: 7. Svo segir Drottinn allsherjar: ef
þú geingur á mínum vegum, og gjætir þess
sem eg vil gjæta láta, þá skaltu stjórna minu
húsi og gjæta minna forgarda; og eg skal
veita þér gáng medal þessara, sem hér standa.
8. Heyr, Jósúa, þú hinn ædsti kennimadur,
og vinir þínir, sem sitja frammi fyrir þér:
þér erud fyrirmyndar menn b); því sjá! eg
læt minn þjón Semakk c) koma. 9. Því sjá-
id, á stein þann, er eg hefi lagt frammi fyrir
Jósúa, á þenna eina stein d) horfa sjø augu e);
sjá! eg prýdi hann med útskurdi, segir Drott-
inn allsherjar, og burttek á einum degi mis-
gjørd þessa lands. 10. Á hinum sama degi,
segir Drottinn allsherjar, skal hvørr ydar, bjóda
ødrum ad sitja undir vínvidartrjám og fíkju-
trjám.

## 4. Kapítuli.

*Ljósastikan og vidsmjørstrén; þýdíng þeirrar sýnar.*

1. Engill sá, er vid mig taladi, vakti mig
ad nýu, eins og þann mann, sem af svefni er
vakinn; 2. og hann sagdi til mín: hvad sjer

V. 10. *a.* Þ. e. Babelslandi. V, 8. *b.* Þ. e. fyrirmynd hins tilkomanda Messiass. c. Þ. e. Messias. Semakk þýdir frumkvistur, nýsprottin grein (þar til er litid 6, 12), en Messias kallast Semakk Jehova, þ. e. afspringur Drottins, Es. 4, 2. og afspringur Davids, Jer. 23, 5. 33, 15. En hjá Sakarias (3, 8. 6, 12) er Semakk ordid ad eignarnafni og øldúngis sama sem Messias. Eins kallast Messias Isai=rót, Es. 11, 10, og rót eda afspríngur Davíds, Opinnb: 5, 5. 22, 16. V. 9. *d.* Undirstødustein musterisins. *e.* Þ. e. Augu Drottins, sjá 4, 10.

þú? Eg svaradi: eg sje ljósastiku, og er øll af gulli; uppi yfir henni er vidsmjørs-skál, en sjø lampar á stikunni, og gánga sjø pípur ad hvørjum lampa, sem er á ljósastikunni; 3. tvø vidsmjørstré standa hjá ljósastikunni, annad hægramegin vid vidsmjørsskálina, hitt vinstramegin. 4. Eg tók þá til orda, og spurdi Engilinn, sem vid mig taladi: hvad er þetta, herra? 5. Engillinn sem vid mig taladi, svaradi og sagdi til mín: veitstu ekki, hvad þetta er? Eg sagdi: nei, herra! 6. Hann svaradi, og taladi til mín þessum ordum: þetta er ord Drottins til Serúbabels: „ekki med valdi eda afli, heldur med mínum Guddómskrapti", segir Drottinn allsherjar. 7. Hvad ertú, hid stóra fjall fyrir framan Serúbabel? Þú skalt verda ad jafnsléttu! og hann skal færa upp høfudsteininn (leggja hyrníngarsteininn), og þá skal vid kveda þad fagnadaróp: heill veri honum! heill veri honum! 8. Drottinn taladi til mín þessum ordum: 9. Hendur Serúbabels hafa lagt grundvøll þessa húss, hans hendur skulu og fullgjøra þad; og þá skaltu vidurkénna, ad Drottinn allsherjar hefir sendt mig til ydar. 10. Því hvørr vill lítilsvirda þenna dag, þó med lítid sé byrjad? Þegar þín sjø (augun) horfa med gledi á blýlódid í hendi Serúbabels, augu Drottins, er líta yfir gjøvalla jørdina. 11. En fremur spurdi eg hann: hvad eru þessi tvø vidsmjørstré, hægra og vinstra megin ljósastikunnar? 12. Eg spurdi hann í annad sinn, og sagdi til hans: hvad eru þær tvær vidsmjørsvidar greinir, sem eru vid hlidina á þeim tveimur gullpípum, er láta gullid streyma út úr sér? 13. Hann sagdi til mín: veitstú ekki, hvad þær eru? Eg svaradi: nei, herra! 14. Þá mælti hann: þad eru þeir tveir smurdu høfdíngjar (menn) a), sem standa frammi fyrir Drottni állrar jardarinnar.

## 5. Kapítuli.

Sjón um bókfell og mæliask útskýrd.

1. Eg hóf aptur upp mín augu, og bar þá fyrir mig bókfell, sem var á flugi. 2. Hann sagdi til mín: hvad sjer þú? Eg svaradi: eg sje bókfell á flugi, tuttugu álna lángt og tíu álna breidt. 3. Hann sagdi til mín: þetta er sú bølvan, sem út gengur yfir gjørvallt landid: sérhvørr, sem stelur, skal, eptir því sem stendur annarsvegar á skjalinu, verda upprættur úr landinu, og eptir því sem stendur hinsvegar, skal sérhvørr, sem vinnur meinsæri, úr landinu upprættur verda. 4. Eg lét bølvanina út fara, segir Drottinn allsherjar, til þess hún komi inn í hús þjófsins, og inn í hús þess, sem sver ránglega vid mitt nafn, og stadnæmist midt í húsi þeirra og eydi því ad vidum og veggjum.

5. Sídan gékk sá Engill framm, er vid mig taladi, og sagdi til mín: hef upp augu þín, og sjá, hvad þar fer! 6. Eg mælti: hvad er þetta? Hann svaradi: þad er mælisáld, sem þar fer. Og enn mælti hann: þar má sjá, hvørnig allir innbúar landsins eru. 7. Þá lyptist upp blýstykki nokkurt, og sat þá kona nokkur nidri í sáldinu. 8. Þá mælti hann, „þetta er Gudleysan", og sídan kastadi hann henni midt í sáldid, og varpadi blýhnúdnum ofan yfir opid. 9. Þar eptir hóf eg upp augu mín, og sá hvar tvær konur komu fram, og stód vindur undir vængi þeim; því þær høfdu vængi, sem hegra vængi, og hófu þær sáldid upp milli jardar og himins. 10. Þá spurda eg Engilinn, sem vid mig taladi: hvørt ætla þessar konur ad fara med mælisáldid? 11. Hann svaradi mér: þær ætla ad byggja henni hús í landinu Sínear b); þar skal hús verda bygt handa henni, og hún sett verda á sinn bólstad.

V. 14. *a.* Hebr. þeir tveir vidsmjørs synir; líklega meinast þeir Jósúa og Serúbabel. V. 11. *b.* Þ. e. í Babelslandi.

## 6. Kapítuli.

Fjórir vagnar med fjórum hestum fyrir fara yfir jord-
ina, til ad hegna mótstodumonnum Guds safn-
adar. Kórónadur Jósúa, hinn ædsti kénnimadur.

1. Eg hóf aptur upp augu mín, og sá
hvar fjórir vagnar komu út á medal tveggja
fjalla, en þau fjøll voru eirfjøll. 2. Fyrir
fyrsta vagninum voru raudir hestar, fyrir ødr-
um vagninum svartir hestar, 3. fyrir þridja
vagninum hvítir hestar, og fyrir hinum fjórda
raudskjóttir. 4. Eg spurdi þá Engilinn, sem
vid mig taladi: hvørjir eru þessir, herra? 5.
Engillinn svaradi mér, og sagdi: þetta eru
þeir fjórir himins andar, sem út eru gengnir,
eptir ad þeir hafa stadid frammi fyrir Drottni
allrar jardarinnar. 6. Vagninn med hinum
svørtu hestum fer í móti Nordurlandinu a), og
hinir hvítu fylgja þeim, en hinir skjóttu fara
móti Sudurlandinu b). 7. Hinir raudu fara
út, og eru rádnir til ad fara yfir alla jørd-
ina; því til þeirra hefir verid sagt: farid
yfir allt jardríkid; og nú fara þeir yfir allt
jardríki. 8. Enn kalladi Engillinn til mín,
og sagdi: sjá þú! þeir sem fara í móti Nord-
urlandinu, skulu láta reidi mína stadnæmast í
Nordurlandinu.

9. Enn taladi Drottinn til mín svolátandi
ordum: 10. þú skalt taka vid sendíngum hinna
herleiddu, af þeim Heldaí, Tobíasi og Jedaja
(því hinn sama dag skaltu gánga heiman og
koma í hús Jósíass Seffaníassonar, hvar sendi-
mennirnir frá Babel halda til). 11. Þú skalt
taka vid gulli og silfri af þeim, og búa til
kórónur, og setja þær á høfud Jósúa Jósa-
dakssonar, hins ædsta kénnimanns, 12. og seg
til hans þessum ordum: Svo segir Drottinn
allsherjar: madur nokkur kémur, sá heitir Se-
mack, því hann skal spretta upp af sínum reit,
og byggja musteri Drottins. 13. Musteri
Drottins skal hann byggja, og tignina bera,
hann skal sitja og drottna á sínum veldisstóli,
og hann skal kénnimadur vera á sínum veld-
isstóli, og milli þeirra beggja c) skal vera frid-
arsamband. 14. Þessar kórónur skulu vera
þeim Helem d), Tobíasi, Jedaja og Hen d)
Seffaníassyni til minníngar í musteri Drott-
ins. 15. Menn skulu koma af fjarlægum lønd-
um til ad byggja musteri Drottins: og þér
skulud vidurkénna, ad Drottinn allsherjar hefir
sendt mig til ydar. Þetta skal rætast, ef þér
viljid hlýda røddu Drottins, ydvars Guds.

## 7. Kapítuli.

Sakarías brýnir fyrir Gydíngum ad hreint hjartalag
og rádvandt líferni sé meir verdt, en føstuhald.

1. Á fjórda ári Daríí Konúngs kom ord
Drottins til Sakaríass; þad var fjórda dag
hins níunda mánadar, þess er kallast Kislev;
2. þegar þeir Sareser og Regem-Melek og
menn þeirra voru sendir til Drottins húss, til
þess ad leita miskunar Drottins med audmjúkri
bæn, 3. og til þess ad adspyrja kénnimenn þá,
er þjónudu í húsi Drottins allsherjar, og Spá-
mennina med þessum ordum: skal eg enn þá
syrgja og fasta í hinum fimta mánadi e), eins
og eg hefi gjørt nú upp í mørg ár? 4. Þá
taladi Drottinn allsherjar til mín svofeldum
ordum: 5. Tala þú þessum ordum til alls
landsfólksins og kénnimannanna: þegar þér føst-
udud og héldud sorgarhátíd í hinum fimta og
hinum sjøunda f) mánudi, og þad upp í sjøtýgi
ár, var þad þá mín vegna ad þér føstudud?

V. 6. *a.* Þ. e. Assýríulandi og Babelslandi. *b.* Þ. e. Egyptalandi. V. 13. *c.* Milli Drottins og Messíass. V. 14. *d.* Sama sem Heldaí og Jósías í 10. v.; þad var ekki sjaldgjæft, ad sami madur hafdi tvø nøfn. V. 3. *e.* Gydíngar héldu tilskipada føstu í herleidíngunni í hinum 5ta mánudi, af því musterid hafdi í þeim mánudi verid eydilagt, 2 Kóng. 25, 8. V. 5. *f.* Í þeim mánudi var Gedalía drepinn, og tvistrad þeim Gydíngum, er honum fylgdu 2 Kóng. 25, 25. Jer. 41.

var þad fyrir mig? 6. Og þegar þér átud og
drukkud, vorud þér þad þá ekki, sem átud? vor-
ud þér þad ekki, sem drukkud? 7. Voru þad ekki
einmidt þau ord, sem Drottinn lét kunngjøra
fyrir munn hinna fyrri Spámanna, medan
Jerúsalemsborg var enn þá vid lýdi og í fridi,
og borgir hennar umhverfis í kríng um hana,
og medan bygdin enn þá stód í sudurhluta lands-
ins og á láglendinu, 8. Enn taladi Drottinn
þessum ordum til Sakaríass: 9. Svo sagdi
Drottinn allsherjar: „dæmid rétta dóma, aud-
sýnid hvørr ødrum kjærleika og miskunsemi,
10. veitid ekki ágáng ekkjum, munadarleysíng-
jum, útlendum eda fátækum mønnum! Einginn
ydar hugsi ødrum íllt!" 11. En þeir tregdudust
vid ad géfa því gaum, gjørdust mótsnúnir, og
daufheyrdust vid; 12. þeir gjørdu hjørtu sín
ad demanti, til þess þeir skyldu ekki heyra løg-
málid, og þau ord, er Drottinn allsherjar sendi
fyrir sinn anda, fyrir munn hinna fyrri Spá-
manna; hvørs vegna Drottinn allsherjar vard
þeim stórlega reidur. 13. Þess vegna, eins og
þeir vildu ekki heyra, þegar kallad var til þeirra,
eins vil eg ekki heldur heyra, þegar þeir kalla
til mín, segir Drottinn allsherjar. 14. Þá
tvístradi eg þeim medal margháttadra þjóda,
sem þeir þektu eingin deili á; og landid lá í
eydi eptir þá, svo einginn fór þar um, og eing-
inn bjó þar; hid ágjæta landid vard ad audn.

## 8. Kapítuli.

Framhald: Guds miskun vid þá hverbrotnu Gydínga; Spámadurinn hughreystir Gydínga og upphvetur þá til sannrar Gudsdýrkunar.

1. Enn fremur taladi Drottinn allsherjar
til mín þessum ordum: 2. Svo segir Drottinn
allsherjar: eg vil rétta hlut Síonsfjalls med
stórri vandlætíngu, med stórri reidi vil eg rétta
hlut þess. 3. Svo segir Drottinn: eg vil snúa
mér aptur til Síonsfjalls, og búa midt í Jerú-
salemsborg; og Jerúsalemsborg skal kallast Sann-
leiksborg, og fjall Drottins allsherjar skal kall-
ast fjall heilagleikans. 4. Svo segir Drottinn
allsherjar: gamlir menn og gamlar konur skulu
á sídan sitja á strætum Jerúsalemsborgar, og
hvørt þeirra hafa staf í hendi sér, fyrir elli sak-
ir; 5. og stræti borgarinnar skulu full vera af
úngum sveinum og meyum, sem leika sér á
strætunum.

6. Svo segir Drottinn allsherjar: jafnvel þó
þad, sem fram skal koma á þeim døgum, sýn-
ist torveldt í augum þessa eptirordna fólks, skyldi
þad þar fyrir vera torveldt fyrir mig? segir
Drottinn allsherjar. 7. Svo segir Drottinn
allsherjar: sjá, eg frelsa minn lýd úr øllum
løndum, hvørt sem þau liggja móti austri eda
vestri. 8. Eg vil leida þá híngad, og þeir skulu
búa midt í Jerúsalemsborg; þeir skulu vera mitt
fólk, og eg vil vera þeirra Gud í sannleika og
réttlæti. 9. Svo segir Drottinn allsherjar:
verid hughraustir, þér sem á þessum døgum
heyrid þessi ord af munni þeirra spámanna a),
sem uppi voru þann dag er lagdur var grund-
vøllur til húss Drottins allsherjar, svo ad
musterid yrdi uppbygt. 10. Því á undan
þeim døgum vard einginn árángur af erfidi
manna, og ekkért gagn haft af kvikfénadi;
hvørt sem madur gékk út eda inn, var einginn
fridur fyrir óvinum; og eg hleypti hvørjum
manni upp á móti ødrum. 11. En nú vil
eg eigi vera eins vid þá, sem eptir eru af
þessari þjód, eins og eg var í fyrri daga, seg-
ir Drottinn allsherjar. 12. Frækornin skulu
vera í fridi: víntréd skal bera sinn ávøxt,
jørdin skal géfa sinn gróda, og himininn sína
døgg. Allt þetta vil eg láta eptirleifum þessa
fólks í skaut falla. 13. Þá skal svo fara, ad
eins og þér Júdaríkis menn og þér Israels

V. 9. a. Þ. e. Spámennirnir, Sakarías og Haggai.

menn vorud ádur álitnir af ødrum þjódum sem
óhamíngjumenn, eins vil eg nú svo adstoda
ydur, ad þér skulud verda álitnir audnumenn.
Óttist því ekki, heldur verid hughraustir! 14.
Því svo segir Drottinn allsherjar: eins og eg
tók þad fyrir mig, ad vera hardur vid ydur
og ekki vægja ydur, þegar forfedur ydar reittu
mig til reidi, segir Drottinn allsherjar: 15.
eins hefi eg þar á móti tekid þad fyrir mig,
ad vera gódur vid innbyggjendur Jerúsalems-
borgar og vid Júdaríkis menn á þessum døg-
um. Óttist því ekki! 16. Þetta er þad, sem
ydur ber ad ástunda: talid sannindi, hvørr vid
annan; dæmid rétta og fridvænlega dóma á
ydar þíngum; 17. einginn ydar hugsi ødrum
illt í hjarta sínu; elskid ekki rángan eid! því
allt þesskonar hata eg, segir Drottinn.

18. Því næst taladi Drottinn allsherjar til
mín þessum ordum: 19. Svo segir Drottinn
allsherjar: fastan í hinum fjórda mánudi a),
fastan í hinum fimta mánudi, fastan í hinum
sjøunda mánudi, og fastan í hinum tíunda
mánudi b) skal verda Júdaríkis mønnum til
fagnadar og gledi og ad æskilegum løghátíd-
um. Elskid ad eins sannleik og frid! 20.
Svo segir Drottinn allsherjar: eitt sinn skal
þad verda, ad þjódir og innbyggjendur marg-
ra borga munu koma, 21. og innbyggjendur
einnar borgar skulu fara til annarar borgar,
og segja: látum oss fara til ad bidja Drott-
inn miskunar og til ad leita Drottins allsher-
jar! — „Eg vil fara!" — „og eg líka!"
22. Skulu þá margir menn og voldugar þjód-
ir koma til ad leita Drottins allsherjar í Jerú-
salemsborg, og bidja Drottinn miskunar med
audmjúkri bæn. 23. Svo segir Drottinn alls-
herjar: á þeim døgum skal þad verda, ad tíu
menn af þjódum ýmissra túngna skulu taka í
kyrtilskaut eins Júdamanns, og segja: vér
viljum fara med ydur, því vér heyrum, ad
Gud er med ydur.

## 9. Kapítuli.

*Sakarías spáir eydileggíngu Sýrlandi, Feníkalandi og Filistalandi; og ad Filistar muni um sídir láta af blótum og taka sanna trú; segir, ad Gud muni senda Messías og vernda volduglega sitt fólk.*

1. Dómur Drottins er upp kvedinn yfir
Hadraks-landi, og mun fram koma á Dam-
maskusborg; því Drottinn hefir gát á ødrum
mønnum, eins og á ættkvíslum Ísraelsmanna.
2. Sømuleidis mun hann fram koma á Ham-
ats-landi, sem þar liggur hjá, og á Týrus-
borg og Sídonsborg, því þær eru slægvitrar
mjøg. 3. Þó Týrusborg hafi bygt sér ør-
uggt vígi, og safnad silfri sem sandi, og gulli
sem saur á strætum: 4. Þá skal þó hinn
Alvaldi eyda hana, og steypa veldi hennar í
sjóinn, og sjálf skal hún verda eydiløgd af eldi.
5. Askalonsborg skal sjá þad, og óttast; Gasa-
borg skal sjá þad, og skjálfa mjøg; einnig Ek-
ronsborg, því hennar von er horfin; Koníng-
inum er í burtu svipt frá Gasaborg, og Aska-
lonsborg liggur í eydi. 6. Útlendíngar skulu
búa í Asdodsborg; þannig vil eg gjøra enda
á ofdrambi Filista. 7. Þó vil eg hreinsa
blódid af vitum þeirra, og taka burtu þær
vidurstygdir, sem tolla milli tanna þeirra c),
svo ad þeir, sem eptir verda af þeim, skulu
einnig tilheyra Gudi vorum, og verda sem
ættfedur í Júdaríki, og Ekronsborgar menn
eins og Jebúsborgar menn d).

8. Eg vil setja herbúdir í kríng um mitt
hús, til varnar móti herlidi og hleypiflokkum

V. 19. *a.* Þegar Kaldear tóku Jerúsalemsborg. Jer. 52, 6. *b.* Þá umsátur Jerúsalemsborgar hófst, 2 Kóng. 25, 1. Jer. 52, 4. V. 7. *c.* Þ. e. Eg skal láta þá hætta blótum og ad eta af skurdgoda fórnum. *d.* Þ. e. Jerúsalems-borgar menn, því Jerúsalemsborg hét ádur Jebúsborg, Dóm. 19, 10.

(óvinanna); einginn kúgari skal framar vada
yfir þá; því nú hefi eg sjed (medferdina á
mínu fólki) med mínum augum. 9. Fagna
þú mjøg, Síons dóttir! Kirja þú upp, Jerú-
salems dóttir! Sjá! þinn Konúngur kémur til
þín! réttlátur er hann og sigursæll, lítillátur,
og rídur á asna, á úngum øsnu fola. 10. Eg
vil eyda øllum vøgnum hjá Efraims-ætt, og
øllum hestum í Jerúsalemsborg; øllum herborg-
um skal og eydt verda: því hann skal kénna
þjódunum frid, og veldi hans skal ná frá hafi
til hafs, og frá fljóti til landsenda. 11. Og
þú (Ísraelslýdur)! samkvæmt sáttmálanum vid
þig, sem med blódi er stadfestur a) slepti eg
bandíngjum þínum út af hinni vatnslausu gryf-
junni b). 12. Snúid aptur til hins trausta
vígisins, þér herteknu, sem væntid lausnarinn-
ar c)! Einnig í dag gjøri eg þad heyrum
kunnugt, ad tvøfaldlega vil eg þér endurgjalda.
13. Því eg hefi Júdaríki fyrir spentan streng,
og Efraims-ætt fyrir uppdreginn boga; eg
vek sonu þína, Síonsfjall, móti þínum sonum,
Grikkland, og gjøri þig ad sverdi í hermanns
hendi. 14. Drottinn skal birtast í øndverdu
lidi þeirra, og hans ørvar út fara, sem eld-
íngar; Drottinn hinn alvaldi skal þeyta lúdur-
inn og gánga fram í sunnanstormum. 15.
Drottinn allsherjar skal vera þeirra hlíf, en
þeir skulu eydileggja og undir fótum troda
slaungusteinana, þeir skulu vada áfram, (blódi)
drukknir eins og af víni, lødrandi, sem fórnar-
skálir, sem horn upp af altari. 16. Drottinn,
Gud þeirra, mun frelsa sinn lýd á þeim degi,
eins og hirdirinn hjørd sína; og vígdir stein-
ar skulu uppreistir standa í hans landi. 17.
Því hvørsu stór er hans gjædska! hvørsu fagr-
ar hans gjafir! af korni og vínberjalegi skulu
úngir sveinar og meyar (aptur) upprenna.

## 10. Kapituli.

*Framhald um vardveitslu Guds á Gydíngalýd.*

1. Bidjid Drottinn um regn á vortíman-
um, bidjid Drottinn þar um, hann sem skap-
ar eldíngarnar; þá mun hann géfa ydur regn-
skúrir, og sérhvørjum manni jardargróda. 2.
Því húsgodin tala hégóma, spámennirnir sjá lýgi-
sjónir, draumarnir segja markleysu og géfa ónýta
huggun. Þess vegna ráfudu (forfedur ydar)
eins og saudir, og voru bjargarlausir; því þá
vantadi gódan hirdir. 3. Mín reidi var upptendr-
ud gégn hirdurunum, og eg vard ad vitja hafr-
anna. En nú vill Drottinn allsherjar vitja
sinnar hjardar, Júdanidja; hann mun láta þá
verda sem skrautbúinn hest í bardaga; 4. frá
þeim munu útgánga þjódhøfdíngjar, merkis-
menn, bogmenn, og þar med allskonar her-
menn. 5. Þeir skulu vera eins og berserkir,
sem í orustum fóttroda (óvini sína) nidur í
bleytuna á strætunum; þeir skulu berjast, því
Drottinn er med þeim, svo ad þeir, sem á hest-
um rída, skulu verda sér til minkunar. 6. Eg
vil gjøra Júda-ættkvísl sterka, og hjálpa Jó-
seps-ætt; eg vil setja þá aptur inn í bústadi
þeirra, því eg hefi medaumkvun med þeim;
þeir skulu vera, eins og eg hefdi ekki útskúfad
þeim: því eg er Drottinn, Gud þeirra, og eg
vil bænheyra þá. 7. Efraims nidjar skulu verda
sem kappar; þeirra hjarta skal verda gladt eins og
af víni; børn þeirra skulu sjá þad, og gledjast,
þeirra hjarta skal fagna í Drottni. 8. Eg vil
blýstra til þeirra, og safna þeim saman, því
eg hefi keypt þá lausa; þeir skulu verda eins
margir, eins og þeir voru fyrrum. 9. Eg vil
útbreida þá medal þjódanna, og þeir skulu minn-
ast mín í fjarlægum løndum; þeir skulu lifa
ásamt med børnum sínum, og koma heim aptur.
10. Eg vil leida þá aptur frá Egyptalandi,

V. 11. *a.* Hebr. blód sáttmálans, þ. e. sáttmáli, stadfestur med fórnfæringu. *b.* Þ. e. frelsadi þig úr Egyptalands ánaud. V. 12. *c.* Hebr., þér vonar-bandíngjar. Hid trausta vígi er Síonsfjall, Jerúsalemsborg.

og safna þeim saman úr Assýríulandi; eg vil flytja þá inn í Gileadsland og Líbanonsland, og þar skal verda ofþraunglendt fyrir þá. 11. Gégnum þreyngíngar haf skulu þeir gánga, en hann (Drottinn) mun nidur slá bylgjur hafsins, og allir álar fljótsins (Nílar) skulu þorna; ofdramb Assýríu Konúngs skal nidurbælast, og veldisssproti Egyptalands á burtu víkja. 12. Eg vil styrkja þá í Drottni, og í hans nafni skulu þeir framm gánga, segir Drottinn.

## 11. Kapítuli.

Sakarías spáir Gydíngalandi stóru áfelli; talar um vonda hirdara, og ótrúrra hirdara makleg laun.

1. Upp lúk þínum dyrum, Líbanonsfjall, svo eldurinn géti eydt þínum sedrustrjám. 2. Grátid, þér furutré, því sedrusvidurinn er fallinn, þau stoltartré eru eydilögd. Grátid, þér Basans eikur, því hinn þykkvi skógurinn liggur vid velli. 3. Nú heyrist gráthljód hirdaranna, því þeirra gérsemi er eydilögd: öskurhljód ljónskálfanna, því mikillæti Jórdanar liggur í eydi.

4. Svo sagdi Drottinn, minn Gud: vert þú hirdir skurdarsaudanna, 5. hvørra kaupendur slátra þeim ad saklausu, og seljendurnir segja, „lofadur veri Drottinn, nu er eg ordinn ríkur", og hirdararnir vægja þeim ekki. 6. Því nú má eg ekki lengur vægja innbyggjendum landsins, segir Drottinn. Sjá, eg vil selja hvørn þeirra á vald annars, og á vald Konúngs þeirra; þeir skulu slá landid, og eg vil ekki frelsa þad af þeirra hendi. 7. Eg gjørdist nú hirdir skurdarsaudanna, — þad var í sannleika aumt fé! — Eg tók mér tvo stafi, kalladi annan þeirra Líknarstaf, en hinn Harmastaf, og gjætti nú fjárins. 8. Á fyrsta mánudi afmádi eg þrjá hirdara, því eg var ordinn leidur á þeim, og þeir voru ekki heldur ánægdir med mig. 9. Loksins sagdi eg: eg vil ekki vera ydar hirdir: deyi þad sem deya vill, farist þad sem farast vill, og þeir, sem eptir verda eti hvørr annars hold. 10. Sídan tók eg Líknarstaf minn, og braut í sundur, til ad bregda þeim sáttmála, sem eg hafdi samid vid allar þjódir. 11. Þannig var þessum sáttmála brugdid á þeim sama degi; og þá skildu hinir aumu saudirnir, sem enn gáfu mér gaum, ad þetta var ord Drottins. 12. Nú sagdi eg til þeirra: „ef ydur þóknast, þá greidid mér kaup mitt, en ef ekki, þá látid þad vera"; þeir vógu mér þá þrjátíu sikla silfurs í kaup mitt. 13. Þá sagdi Drottinn til mín: „kasta þú til leirkérasmidsins þessu merkilega kaupgjaldi, sem þeir hafa metid mig verdan". Og eg tók þá þrjátíu sikla silfurs, og kastadi þeim í hús Drottins til leirkérasmidsins. 14. Sídan braut eg sundur hinn stafinn, Harmastafinn, til þess ad bregda upp brædra-félaginu milli Júdaríkismanna og Ísraelsmanna. 15. Enn mælti Drottinn til mín: nú skaltu fyrirmynda ónýtan hirdir! 16. Því sjá, eg læt þann hirdir upp koma í landinu, sem ekki mun vitja hins fársjúka, ekki leita hins hrakta, ekki græda hid limlesta, ekki bera hid þreytta, heldur eta kjötid af hinu feita fénu, en fleygja klaufunum. 17. Vei þeim ónýtum hirdir, sem yfirgéfur hjördina! Sverd skal koma á hans handlegg og hægra auga; hans armleggur skal uppvisna, og hans hægra auga verda steinblindt.

## 12. Kapítuli.

Sakarías kénnir, ad Gud muni vardveita sitt fólk móti óvinum þess, og med sínum anda hræra þad til idrunar.

1. Þetta er þad ord, er Drottinn hefir upp kvedid um Ísraelsmenn; þad er atkvædi Drottins, hans, sem útþenur himininn, grundvallar jördina, og skapar þann anda, sem med manninum býr. 2. Sjá, eg læt Jerúsalemsborg verda ad ofdrykkju-bikar fyrir allar

þær þjóðir, sem í kríng eru; og jafnvel Júda = ættkvísl skal neydast til ad vera med í umsátrinu um Jerúsalemsborg. 3. Á þeim degi vil eg gjøra Jerúsalemsborg ad aflraunarstein; fyrir allar þjóðir; hvørr sá, sem vill hefja hann upp, skal hrufla sig á honum: því allar þjóðir á jørdunni skulu samansafnast móti henni. 4. Á þeim degi vil eg, segir Drottinn, slá felmtri á alla hesta, og vitleysu á sérhvørn þann, sem rídur þeim. Eg vil hafa vakanda auga á Júda ættkvísl, en slá alla hesta þjóðanna med blindu. 5. Þá skulu høfdíngjar Júda ættkvíslar segja med sjálfum sér: sterkir eru innbyggjendur Jerúsalemsborgar fyrir adstod Drottins allsherjar, Guds þeirra. 6. Á þeim degi vil eg láta høfdíngja Júda ættkvíslar vera sem glódarkér í vidarkésti og sem blys í kérfum; þeir skulu fella alla þá menn, sem í kríng um þá eru, til hægri og vinstri handar; og Jerúsalemsborg skal vera kyrr á sínum samastad, þar sem hún ádur var. 7. Drottinn mun frelsa tjaldbúdir Júda ættkvíslar á undan (Jerúsalemsborg), svo ad frami Davíðs ættar og Jerúsalemsborgar innbyggjenda verdi ekki meiri, en frami Júda ættkvíslar. 8. Á þeim degi mun Drottinn vera hlífskjøldur Jerúsalemsborgar innbyggjenda: sá sem er lítill fyrir sér medal þeirra, skal á þeim degi verda ønnur eins hetja og Davíð, og Davíðs ætt eins og Gud, eins og Engill Drottins, (sá er fordum gékk) á undan þeim (2 Mós. 14, 18). 9. Á þeim degi vil eg gjøra mér far af ad afmá alla þá heidíngja, sem farid hafa í móti Jerúsalemsborg.

10. Þá vil eg úthella líknar anda og bænar anda yfir Davíðs ætt og yfir innbyggjendur Jerúsalemsborgar: þeir skulu renna augum til mín, til hans, sem þeir hafa gégnum stúngid; þeir skulu kveina hans vegna, eins og menn harma lát einkasonar síns: þeir skulu hryggjast hans vegna, eins og menn hryggjast af láti frumgétins sonar. 11. Á þeim degi skal eins mikid harmakvein verda í Jerúsalemsborg eins og (fordum) vard í Hadad = Rimmonsborg í Megiddons = dal. a). 12. Landid skal kveina, hvørr kynþáttur fyrir sig: kynþáttur Davíðs ættar sér í lagi, og konur þeirra fyrir sig; kynþáttur Natans ættar sér í lagi, og konur þeirra fyrir sig; 13. kynþáttur Leví ættar sér í lagi, og konur þeirra fyrir sig; kynþáttur Símeí ættar sér í lagi, og konur þeirra fyrir sig; 14. og eins allir hinir adrir kynþættir, hvørr kynþáttur sér í lagi, og kvinnur þeirra fyrir sig.

## 13. Kapítuli.

*Um það hvørsu Gud mun betra sitt fólk, afmá hjágudadýrkun og lýgispámenn, og hreinsa sinn søfnud.*

1. Á þeim degi skal standa opinn brunnur handa Davíðs ætt og handa innbyggjendum Jerúsalemsborgar til ad afþvo syndir og óhreinleika. 2. Á þeim degi vil eg, segir Drottinn allsherjar, afmá nøfn skurdgodanna úr landinu, svo þeirra skal eigi framar minnst verda; sømuleidis vil eg útreka af landinu (fals =) spámennina og hinn óhreina anda. 3. Og ef nokkurr spáir framar, þá skal fadir hans og módir, sem ólu hann, segja til hans: „þú skalt ekki lifa, því þú hefir talad lýgi í nafni Drottins"; og fadir hans og módir, sem ólu hann, skulu leggja hann í gégn, søkum þess hann spáir. 4. Á þeim degi skulu spámennirnir verda til skammar, sérhvørr søkum þeirra sjóna, er hann þóktist sjá, þegar hann spádi; og þeir skulu ekki íklædast lodkápum til ad blekkja adra. 5. Þá skal hvørr einn segja: eg er eingi spámadur heldur akurverks madur, því eg hefi unnid allt í frá úngdæmi mínu. 6. Og spyrji nokkurr hann, „af hvørju eru þessi sár, sem þú hefir á høndum

V. 11. *a)* Eptir fall Jósías, Júdaríkis konúngs, sjá 2 Kron. 35, 20—25.

þínum?" Þá mun hann svara: „af því eg hefi verid sleginn í húsi þeirra, sem elskudu mig".
7. Vert á lopti, sverd, yfir mínum hirdir, yfir þeim manni, sem mér er nánastur, segir Drottinn allsherjar; slá þú hirdirinn, svo hjørdin tvístrist; eg vil samt hepta hønd mína, og halda henni yfir smáfénu. 8. Svo skal til gánga í gjørvøllu landinu, segir Drottinn, ad tveir hlutir landsfólksins skulu afmást og upp géfa ønd sína, en þridjúngur þess eptir verda.
9. En þenna þridjúng vil eg láta í eld, og hreinsa hann, eins og silfur er hreinsad, og prófa hann, eins og gull er prófad. Þá mun hann ákalla mitt nafn, og eg vil bænheyra hann; og vil segja: þetta er mitt fólk; og hann mun segja: Drottinn er minn Gud.

## 14. Kapítuli.

Um inntoku Jerúsalemsborgar, útbreidslu Guds safnadar, og sameiníngu heidíngjanna vid Guds fólk.

1. Sjá! eptir rádstøfun Drottins kémur sá dagur, ad því herfángi, sem frá þér er rænt (Jerúsalemsborg!), verdur skipt midt í sjálfri þér. 2. Því eg vil kvedja upp alla heidíngja til hernadar móti Jerúsalemsborg, og borgin skal verda tekin, húsin rænd, kvinnur smánadar og helmíngur borgarmannanna herleiddur; en þó skal eptir verda nokkurt fólk í borginni, sem ekki skal afmád verda. 3. Því Drottinn mun út fara, og berjast vid þessa sømu heidíngja, eins og þá hann bardist fordum a) á orustudeginum. 4. Á þeim degi munu fætur hans standa á vidsmjørsvidar fjallinu, sem liggur gagnvart Jerúsalemsborg móti austri; mun þá vidsmjørsvidar fjallid klofna um þvert frá austri til vesturs; og þar mun verda geysividur dalur, því annar hluti fjallsins mun undan síga til nordurs, en hinn til sudurs. 5. Þá munud þér flýa í þennan minn fjalldal; því dalurinn milli fjallanna mun ná allt nidur ad fjallsrótum; þér munud flýa, eins og þegar þér flýdud undan landskjálftanum á døgum Usías, Júdaríkis Konúngs. Þá kémur Drottinn, minn Gud, og allir heilagir med honum.
6. Á þeim degi mun ekkért ljós skína, heldur vera blendíngur birtu og dimmu. 7. Þessi dagur mun verda einstakur Drottni (einum) kunnur, hvørki dagur né nótt; en undir kvøld mun ljós verda.

8. Á þeim degi munu vøtn út fljóta frá Jerúsalemsborg, og mun annar helmíngur vatnanna falla í hafid móti austri, en hinn helmíngurinn í hafid móti vestri; þetta skal vara sumar og vetur. 9. Þá skal Drottinn Konúngur vera yfir øllum løndum; á þeim degi skal Drottinn vera einn, og nafn hans eitt.
10. Allt landid frá Geba til Rimmons fyrir sunnan Jerúsalemsborg skal verda ad sléttum velli. Háreist og óhult skal Jerúsalemsborg standa á stødvum sínum, frá Benjamínshlidi til hins gamla hlids, hyrníngarhlidsins, og frá Hananelsturni til víntrada Konúngsins. 11. Menn skulu búa í borginni, og eingin óblessun skal framar í henni vera; Jerúsalemsborg skal óhult standa.

12. Þetta skal vera sú plága, sem Drottinn skal láta gánga yfir allar þær þjódir, sem fara herfør móti Jerúsalemsborg: líkami sérhvørs manns skal uppþorna, medan hann er enn á fótum, augun skulu hjadna í augnatóptunum, túngan visna í munninum. 13. Á þeim degi skal Drottinn æsa mikid upphlaup medal þeirra, svo þeir skulu takast á, og hvørr hefja hønd sína móti ødrum. 14. Einnig þú, Júda ættkvísl, skalt herja á Jerúsalemsborg: og audur allra heidíngja, sem í kríng eru, skal þar saman safnast, gull, silfur og klædi, svo ad stóru nemur. 15. Sama plága, sem þessi, skal

V. 3. *a.* Vid Egyptalandsmenn.

koma yfir hesta, múla, úlfalda, asna, og øll
þau dýr, sem í þeim herbúdum eru.
16. Pad skal verda, ad allar eptirleifar all-
ra þeirra heidíngja, sem farid hafa móti Je-
rúsalemsborg, skulu hvørt ár þángad upp fara,
til ad falla fram fyrir Konúnginum, Drottni
allsherjar, og til ad halda heilagt Laufskála-
hátídina. 17. En hvør sú þjód á jardríki,
sem eigi vill upp fara til Jerúsalemsborgar, til
ad falla fram fyrir Konúnginum, Drottni alls-
herjar, yfir hana skal ekki regnskúr koma. 18.
Og vilji Egyptaþjód ekki upp fara, og ekki
þángad koma, þá skal eigi heldur yfir þá regn
koma; yfir þá skal koma sú plága, sem Drottinn
mun láta gánga yfir þær þjódir, er ekki vilja
upp fara, til ad halda heilagt Laufskálahátíd-
ina. 19. Þetta skal vera hegníng Egypta-
landsmanna, og hegníng allra þeirra þjóda,
sem ekki vilja upp fara, til ad halda heilagt
Laufskálahátídina. 20. Á þeim degi skulu þessi
ord standa á bjøllum a) hestanna, „helgad
Drottni"; og katlarnir í húsi Drottins skulu
vera sem fórnarskálirnar fyrir altarinu. 21.
Já, sérhvørr kétill í Jerúsalemsborg og í Júda-
ríki skal helgadur vera Drottni allsherjar; og
hvørr, sem fórnfæra vill, skal koma og taka
einhvørn þeirra, og sjóda í. Og á þeim degi
skulu aungvir Kanverjar framar vera í húsi
Drottins allsherjar.

---

# Spámadurinn Malakías.

## 1. Kapítuli

Malakías lýsir elsku Guds til Gydínga; óþakklæti þeirra; ad Gud vilji útvelja heidíngja.

1. Ord Drottins, kunngjørt Ísraelsmønn-
um af Malakías. 2. Eg hefi elskad ydur, seg-
ir Drottinn. Og ef þér spyrjid: „med hvør-
ju hefir þú sýnt á oss kjærleika þinn?" Þá
svarar Drottinn: var ekki Esaú bródir Jakobs?
og þó elskadi eg Jakob; 3. en hatadi Esaú;
eg gjørdi fjallbygdir hans ad audn, og erfda-
hlut hans ad øræfabýlum. 4. Ef Edomsmenn
segja: „vér erum ad sønnu nidurbrotnir, en
vér viljum byggja upp aptur rofin", þá seg-
ir Drottinn allsherjar svo: byggi þeir, eg skal
nidurbrjóta; land þeirra skal heita Gudleysu-
land, og þjódin þad fólk, hvørju Drottinn er
reidur eilíflega. 5. Þér skulud horfa á þad
med eigin augum, og segja: Drottinn skal víd-
frægjast utan landamerkja Ísraelsmanna.
6. „Sonurinn skal heidra fødurinn, og þjón-
inn sinn lánardrottinn. Sé eg nú fadir, hvar
er þá minn heidur? sé eg Drottinn, hvar er
þá óttinn fyrir mér?" segir Drottinn allsher-
jar til ydar, kennimannanna, sem fyrirlítid
mitt nafn. Þér spyrjid: „hvørnig fyrirlítum
vér þitt nafn?" — 7. Þér fórnfærid óhreinni
fædu á mínu altari. Þér spyrjid: „med hvør-
ju saurgum vér þig (þitt altari)?" — Þar
med, ad þér segid: „bord (altari) Drottins er
fyrirlitlegt". 8. Því þegar þér berid fram
blindt fé til fórnar, þá kallid þér þad ekki saka;
og þegar þér komid med halt og sjúkt fé, þá
álítid þér þad ósaknæmt. Fær þú Landshøfd-
ingja þínum slíkt, vittu hvørt honum líkar vid

---

V. 20. *a.* Eda lausum, sem héngu til prýdis á reidingi hestanna.

þig eda hvørt hann tekur þér vel! ſegir Drottinn
allsherjar. 9. Bidjid nú (þér kénnimenn!)
Drottinn audmjúklega, ad hann ſé oſs líkn-
ſamur; því ydur er um þetta ad kénna. Gét-
id þér búiſt vid því, ad hann muni vilja verda
nokkurum ydar miſkunſamur? ſegir Drottinn
allsherjar. 10. Ydur væri ſæmra, ad loka
dyrum (muſteriſins), ſvo þér ekki tendrudud eld
til ónýtis á altari mínu! Eg hefi einga vel-
þóknun á ydur, ſegir Drottinn allsherjar, og
eingin fórn er mér þægileg af ydar hendi. 11.
Því frá uppgaungu ſólar og til hennar nidur-
gaungu ſkal mitt nafn mikid (vegſamlegt)
verda medal heidíngjanna, og á hvørjum ſtad
ſkal mér til heidurs fórnfært verda reykélſi og
hreinni matarfórn; því mitt nafn ſkal mikid
verda medal heidíngjanna, ſegir Drottinn alls-
herjar. 12. En þér vanhelgid þad, med því
þér ſegid: „bord Drottins er óheilagt, og ſú
fórn, ſem framborin er á þad, er einſkisverd";
13. og enn ſegid þér: „ó, hvílík fyrirhøfn!" —
Þér gjørid þad (altarid) fyrirlitlegt, med því
þér fórnfærid því rænda, halta og ſjúka: ſlíkt
berid þér fram ſem matarfórn! Gét eg þegid
þetta med velþóknun af ydar hendi? ſegir
Drottinn. 14. En bølvadur veri ſá ſvikari,
ſem á hvatan fénad í hjørd ſinni, en gjørir þó
heit og fórnfærir hinum Alvalda því ſem gall-
ad er; því eg er mikill Konúngur, ſegir Drott-
inn allsherjar, og mitt nafn óttalegt medal
heidíngjanna.

## 2. Kapítuli.

*Malakías prédikar móti hirduleyſi kénnimannanna, og móti hjónaſkilnadi.*

1. Og nú, þér kénnimenn, ydur géf eg þeſſa
áminníngu. 2. Ef þér viljid ekki þeſſu gaum
géfa, og ekki láta ydur um þad hugad, ad géfa
mínu nafni dýrdina a), ſegir Drottinn allsher-
jar, þá vil eg ſenda óhamíngju yfir ydur, og
láta óbleſsun koma í þá velgjørnínga, ſem þér
þiggid af mér; já, eg hefi látid óbleſsunina þeg-
ar koma, af því þér hafid allir verid ſkeytíng-
arlauſir. 3. Sjáid, eg vil ſpilla frækornunum
fyrir ydur, og dreifa gori í andlit ydur, gori
fórnardýra ydvarra, og þad ſkal draga ydur til
ſín. 4. Og þér ſkulud vidurkénna, ad eg hefi
géfid ydur þeſſa áminníngu, til þeſs minn ſátt-
máli vid Leví ættmenn mætti haldaſt, ſegir
Drottinn allsherjar. 5. Minn ſáttmáli vid Leví
ættmenn var líf og fridur; eg gaf þeim mín bod-
ord, til þeſs þeir ſkyldi óttaſt mig, og þeir
ſkélfduſt fyrir mínu nafni. 6. Løgmálid var
óbrjálad í munni þeirra, og ekkért rángt fannſt
á þeirra vørum; þeir framgengu fridſamlega
og réttvíslega fyrir mér, og ſnéru mørgum
manni frá ſyndum. 7. Því varir kénnimanns-
ins eiga ad vardveita þekkíngu, og menn eiga
ad ſækja løgmálid í munn honum, því hann er
ſendibodi Drottins allsherjar. 8. En þér haf-
id vikid af veginum, og leidt marga menn af-
leidis frá løgmálinu; þér hafid ónýtt ſáttmál-
ann vid Leví nidja, ſegir Drottinn allsherjar.
9. Eg hefi einmidt þeſs vegna komid ydur í
fyrirlitníngu og óvirdíngu hjá gjørvøllum lýdn-
um, af því þér ekki gjætid minna vega, heldur
farid ad mannvirdíngum í løgmálinu. 10. Høf-
um vér ekki allir einn fødur? Hefir ekki einn
Gud ſkapad oſs? Hvørs vegna erum vér þá
ſvo trygdalauſir hvørr vid annan, ad vanhelga
ſáttmál fedra vorra?

11. Júda nidjar eru eidrofar, og ſvívirdíng-
ar vidgángaſt medal Iſraelsmanna og í Jerú-
ſalemsborg; því Júda nidjar ſmána Drottins
heilaga lýd, hvørn hann elſkar, med því þeir
gánga ad eiga þær konur, ſem trúa á útlendſk

V. 2. *a.* Ad géfa Guds nafni dýrdina er ſama ſem ad géfa Gudi dýrdina, og er hebreſkt ordatiltæki, ſem þýdir, ad veita Gudi þann heidur, ſem honum ber, virda Gud yfir alla hluti fram.

god. 12. Fyrir þeim manni, sem slíkt gjørir, skal Drottinn afmá af tjaldbúdum Jakobs nidja alla þá, sem ad honum standa a), og eins þann, sem framber (hans) fórn fyrir Drottinn allsherjar. 13. Hér á ofan gjørid þér þetta: þér byrgid altari Drottins med tárum, gráti og andvørpunum b), svo eg gét ekki framar litid á ydar fórn, og ekkért þegid med velþóknun af ydar hendi. 14. Þér spyrjid: „hvørs vegna?"— Af því Drottinn var vottur (ad félagsskapnum) milli þín og þinnar úngdóms-kvinnu, sem þú brást trúnadi vid, en þótt hún væri bundin í félag vid þig og eiginkona þín eptir gjørdu sáttmáli. 15. Þannig breytti ekki hinn einstaki madur (Abraham), sem var allt ødruvísi lyndtur. Hvad gjørdi þá hinn einstaki? Hann leitadi sér afkvæmis, eptir fyrirheiti Guds. Verid því vakandi yfir ydar hjarta, ad einginn ydar bregdi trúnadi vid sína úngdóms kvinnu. 16. Því eg hata hjónaskilnadinn, segir Drottinn, Israels Gud, en þótt menn vilji breida klædi sitt yfir þá rángsleitni; segir Drottinn allsherjar. Hafid því gát á ydar hjarta, ad þér ekki sýnid af ydur nokkurn ótrúnad. 17. (í næsta Kap).

## 3. Kapítuli.

Malakías talar um Messías; um þá sem svikust um ad gjalda til musterisins; um mismun á þeim gudhræddu og andvaralausu.

17. Þér þreytid Drottinn med ydar ordum. Þér spyrjid: med hvørju þreytum vér hann? — Med því, ad þér segid: „sérhvørr, sem íllt gjørir, er gódur í augum Drottins, um slíka þykir honum vænt; eda hvar er sá Gud, sem dæmir"? 1. Sjáid! eg sendi minn Engil, sem greida skal veginn fyrir mér; brádum skal hann koma til síns musteris, sá herra, hvørs þér leitid, sá sáttmálans Engill, hvørs þér æskid. Sjáid! hann kémur, segir Drottinn allsherjar. 2. En hvørr má afbera þann dag, er hann kémur? Hvørr fær stadist, þá hann lætur sig sjá? Því hann er sem eldur málmbrædslumannsins, og sem lútarsalt þvottamannanna. 3. Hann skal sitja, og silfrid bræda og hreinsa; hann skal hreinsa Leví nidja, og gjøra þá skíra sem gull og sem silfur; og þeir (einir) skulu Drottni tilheyra, sem fram bera fórnir í réttlæti. 4. Þá skal fórn Júdanidja og Jerúsalemsborgar manna verda Drottni þakknæmileg, eins og fordum daga, eins og á fyrri tídum. 5. En eg vil nálægja mig ydur til dóms, og skyndilega framm gánga sem vitni í gégn galdramønnum, hórdómsmønnum, meinsærismønnum, móti þeim sem hafa af dagIaunamanninum laun hans, þraungva ekkjum og fødurleysíngjum, kúga útlendínginn, og óttast mig ekki, segir Drottinn allsherjar. 6. Því eg Drottinn em óumbreytanlegur; þess vegna erud þér, Jakobs nidjar, ekki med øllu eydilagdir.

7. Allt í frá døgum fedra ydvarra hafid þér vikid frá mínum skipunum, og ekki gjætt þeirra. Snúid ydur til mín, þá vil eg snúa mér til ydar, segir Drottinn allsherjar. Þér spyrjid: „hví skulum vér snúa oss"? — 8. A madurinn ad pretta Gud? því mig hafid þér prettad! Þér spyrjid: „í hvørju prettum vér þig"? — Í tíundum og lyptíngarfórnum. 9. Stór óblessan liggur fyrir ydur, fyrir þad ad þér, gjørvallt landsfólkid, prettid mig. 10. Flytjid alla tíundina í vistaklefann, svo ad nóg vist sé til í mínu húsi! og vitid svo til, segir Drottinn allsherjar, hvørt eg skal ekki upp lúka fyrir ydur vatnsrásum himinsins, og úthella yfir ydur yfirgnæfanlegri blessun. 11. Eg skal fæla burt spillidýrin frá ydur, svo þau

V. 12. a. A Hebr., hinn vakanda og hinn svaranda. V. 13. Þ. e. þér erud orsøk í því, ad konur ydar (sem þér annadhvørt rekid frá ydur, eda hafid út undan) gráta og andvarpa undan ydur fyrir altari Drottins.

skulu ekki spilla fyrir ydur gróda jardarinnar,
og víntréd skal ekki verda ydur ávaxtarlaust á
akrinum, segir Drottinn allsherjar. 12. Allar
þjódir skulu prísa ydur sæla, og ydar land skal
vera æskilegt land, segir Drottinn allsherjar.

13. Hørd er ydar ræda í gégn mér, segir
Drottinn. Þér spyrjid: „hvad tølum vér í
gégn þér?" 14. Þér segid: „þad er til einskis
ad þjóna Gudi! hvada ágángur høfum vér af
ad vér gjætum þess, sem hann vill gjæta láta,
og gaungum í sorgarbúníngi fyrir augliti Drott-
ins allsherjar? 15. Þess vegna teljum vér
þá sælli, sem eru gudlausir syndarar; þeim sem
gudleysi fremja, geingur allt ad óskum; þeir
freista Guds, og komast þó vel af". 16. Þeir
þar á móti, sem óttast Drottinn, segja svo
hvørr vid annan: „Drottinn gefur gjætur ad,
og heyrir; frammi fyrir hans augliti liggur
skrifud minnisbók um þá, sem óttast Drottinn
og hugsa um hans nafn". 17. Já, þeir
skulu vera mínir, segir Drottinn allsherjar, á
þeim degi, þá eg tilreidi mér mína eiginlega
eign; og eg skal vægja þeim, eins og madur
vægir syni sínum, sem þjónar honum. 18.
Þá skal ydur géfa á ad líta þann mismun,
sem er á milli réttláts manns og ógudlegs,
á milli þess, sem Gudi þjónar, og hins, sem
ekki þjónar honum.

## 4. Kapítuli.

Dagur Drottins. Elías Spámadur.

1. Því sjá! dagurinn kémur, brennandi sem
ofn. Þá skulu allir ósvífnir syndarar, og þeir,
sem gudleysi fremja, vera sem hálmleggir, og
dagurinn, sem kémur, skal kveykja í þeim, segir
Drottinn allsherjar, og hvørki eptirskilja þeim
rót né kvist. 2. En yfir ydur, sem óttist mitt
nafn, skal upp renna sól réttlætisins, undir hvørr-
ar vængjum hjálprædid er; þér skulud út gánga,
og leika ydur sem alikálfar; 3. þér skulud sund-
urtroda hina ógudlegu: því þeir skulu verda
aska undir iljum ydar, á þeim degi, sem eg
læt koma, segir Drottinn allsherjar. 4. Mun-
id eptir løgmáli Mósis, míns þjóns, því er eg
baud honum á Hóreb ad birta øllum Ísraels-
mønnum: (munid eptir þess) skipunum og
bodordum!

5. Sjá, eg sendi ydur Elías, Spámanninn,
ádur en hinn mikli og ógurlegi dagur Drottins
kémur. 6. Hann skal snúa hjørtum fedranna
til barnanna, og hjørtum barnanna til fedr-
anna, svo eg komi ekki og láti óblessun koma
yfir landid.



# Þær
# Apokryfisku Bækur
## Hins
## Gamla Testamentis.

## Júdits Bók.

### 1. Kapítuli.

*Nebúkadnésar vinnur sigur á Arfaxad. Hans hernadur.*

1. Á 12ta ári Nebúkadnésars ríkisstjórn-
ar, sem ríkti yfir Assýriskum í Niníve, þeirri
miklu borg, á tímum Arfaxads, sem ríkti yfir
Medum í Ekbatana. 2. En hann bygdi múr-
vegg í kríngum Ekbatana af høggnum steinum,
þriggja álna breidum, og 6 álna laungum, og
gjørdi vegginn 70 álnir á hæd, og 50 álnir
á breidd; 3. og turna setti hann yfir (borgar)
hlidin 100 álnir á hæd, og breidd þeirra grund-
valladi a) hann allt ad 60 álnum; 4. og þeirra
dyr reisti hann til 70 álna hædar, og breidd þeirra
var 40 álnir, svo ad hans strídsmanna her,
og flokkar hans fótgaungulids gjætu útfarid.
5. Einmidt um þad leiti átti Nebúkadnésar
orustu vid Arfaxad á þeim miklu vøllum, sem
eru í héradinu Ragau. 6. Og til hans søfn-
udust allir, þeir sem bjuggu á fjallinu, og vid
Frat, og vid Tigris og Hydaspes, og í landi
Aríoks Elamíta Kóngs; og mjøg margar þjód-
ir komu saman, til stríds hers Keleulssona.

7. Og Nebúkadnesar, Kóngur Assýríumanna,
sendi til allra, sem bjuggu í Persalandi, og
til allra, sem bjuggu þar fyrir vestan, sem
bjuggu í Kilikíu, í Damaskus, á Líbanon og
Antilibanon, og til allra sem bjuggu vid sjó-
inn, 8. og til þeirra medal Karmels þjóda,
og í Gilead, og í efri Galileu og á því mikla
sléttlendi Esdrelom, 9. og til allra í Samaríu
og hennar stødum, og hinumegin Jórdanar,

V. 3. *a.* Grundv: lét turnana hafa þessa breidd nedst.

allt ad Jerúsalem og Betane og Kellus og
Kates, og allt ad Egyptalands fljóti, og allt til
Tafne og Ramesse, og í øllu Gesem (Gósenlandi)
10. allt upp fyrir Tanis og Memfis, og til
allra sem bjuggu í Egyptalandi, allt ad Mór-
lands landamerkjum. 11. En allir innbúar
allrar jardarinnar forsmádu ord Nebúkadnes-
ars, Kóngs Assýríumanna, og komu ekki til
hans í hernadinn, því þeir voru ekki hræddir
vid hann, heldur álitu hann sinn líka; og þeir
sendu til baka frá sér hans sendimenn erindis-
lausa med skømm.

12. Þá reiddist Nebúkadnesar ákaflega øll-
um þessum sømu løndum, og sór vid sitt há-
sæti og Konúngdóm ad hefna sín á øllum hér-
ødum Kilikiu og Damaskus og á Sýrlandi, ad
tortína med sínu sverdi øllum innbúum Mó-
abslands og sonum Ammons og øllu Júda
landi, og øllum í Egyptalandi, allt ad takmørk-
um beggja hafanna. 13. Og rédist med sín-
um her á Arfaxad Kóng á 17da ári, og vann
sigur í orustunni vid hann, og rak á flótta all-
an Arfaxads her, og alla hans hesta, og alla
hans vagna, 14. og tók undir sig hans stadi,
og kom allt til Ekbatana, og vann turnana, og
eyddilagdi hennar stræti, og gjørdi hennar dýrd
ad svívirdíng, 15. og hertók Arfaxad á fjallinu
Ragau, og rak í gégnum hann sitt spjót, og
fyrirfór honum á þeim sama degi. 16. Og
hann snéri med þeim aptur til Niníve, hann
og allur hans hópur, mjøg mikill fjøldi stríds-
manna; og þar tók hann hvíld, og hélt gésta-
bod, hann og hans strídsher, í hundrad og
20 daga.

## 2. Kapítuli.

Holofernes sendur í hernad.

1. Og á átjánda ári, á 22rum degi þess
fyrsta mánadar var haldid tal (rád) í húsi Nebú-
kadnesars Assýríumanna Kóngs, um þad, ad hann
hefndi sín á øllum løndum, eins og hann hafdi
sagt. 2. Og hann kalladi alla sína þénara
og alla sína maktarmenn, og meddeildi þeim
sitt heimuglegt rád, og sagdi frá allri vondsku
þjódanna med sínum eginn munni. 3. Og
þeir løgdu á þann dóm, ad menn skyldu af-
má allt hold, hvørn þann sem ei hefdi hlýdn-
ast ordum hans munns.

4. Og þad skédi, þá Nebúkadnesar, Kóngur
Assýríumanna, hafdi haldid sitt rád, ad hann
kalladi fyrir sig Holofernes, ædsta hershøfdíng-
ja yfir hans her, sem gékk honum næst, og
mælti vid hann: 5. svo segir sá mikli Konúng-
ur Herra allrar jardarinnar: sjá, þú skalt fara
af stad af minni hendi, og taka med þér menn,
sem traust hafa á sínum krøptum, fótlid hér-
umbil 120 þúsundir, og af hestum ásamt reid-
mønnum, 12 þúsundir, 6. og þú skalt fara
móti øllum þeim løndum, hér fyrir vestan,
þared menn hlýdnudust ei ordi míns munns,
7. og þú skalt kunngjøra þeim, ad þeir hafi
til reidu handa mér land og vatn; því eg
mun (annars) leggja af stad, á móti þeim, í
minni grimd, og þekja andlit jardarinnar med
fótum míns hers, og géfa hinum sama þá ad
herfángi; 8. og þeirra særdu skulu fylla þeirra
dali og læki, og sú, yfir bakka fljótandi á,
skal af þeirra daudu (líkum) uppfyllt verda;
9. og eg mun flytja þeirra fánga til jardar-
innar enda. 10. En þú skalt á undan fara
og vinna undir mig øll þeirra hérød, ad þeir
gángi á þitt vald, og þú geimir mér þá til
hegníngarinnar dags. 11. En hlífdu ekki þeim
þverbrotnu, heldur dreptu þá og rændu í øllu
þínu landi (hvar sem þú kémur). 12.
Því svo sannarlega sem eg lifi og veldi míns
Konúngsdóms, þetta hefi eg talad, og þetta
mun eg gjøra, med minni hendi. 13. En yf-

V 7. Land og vatn. Ad géfa jord og vatn úr sínu landi, skyldi þýda undirgéfni undir þann er vid þessu tók.

irtrod þú ekkért ord þíns herra, heldur framkvæm það vandlega, eins og eg hefi bodid þér, og tef ekki vid ad gjøra þetta.

14. Þá gékk Holofernes út frá sínum herra, og heimti saman alla þá voldugu og hershøfdíngjana, og yfirboda þess Assýrísku strídshers, 15. og taldi einvala menn til hersins, eins og hans herra hafdi honum bodid, hérumbil 120 þúsund, og 12 þúsundir reidmanna, sem voru bogmenn. 16. Og hann nidurskipadi þeim, eins og sídur er ad niðurskipa miklum her. 17. Og hann tók úlfalda og asna og múla, fyrir þeirra farángur, mjøg mikinn fjølda, og saudi og naut og geitfé, til vista fyrir þá, svo ei kom tølu á, 18. og matvæli fyrir einn og sérhvørn ríkuglega, og gull og silfur úr Kóngsins húsi næsta mikid. 19. Og svo lagdi hann af stad med allann sinn her, til þess ad vera á undan Nebúkadnesar Kóngi, og til ad þekja allt andlit jardarinnar, mót aptni, med vøgnum og reidmønnum og einvala fótlidi. 20. Líka fór med þeim mikill aukaskríll, líkt eingisprettum og líkt sandi jardar; því ekki vard tølu ákomid fyrir fjølda sakir.

21. Og þeir fóru frá Ninive þrjár dagleidir, (og komust) á vøllin Baiktilait, og settu herbúdir út yfir Baiktilait, í nánd vid fjallid, sem er vinstra megin vid efri Kilikíu. 22. Og hann tók allann sinn her, sitt fótlid og sína reidmenn og sína vagna, og fór þadan uppá fjallid. 23. Og hann eydilagdi Fúd og Lúd, og alla sonu Rassis og Ismaelssyni, sem bjuggu sudur í Killealandi fyrir framan eydimørkina. 24. Og hann stefndi ad Frat, og fór yfir Mesópotamíu, og nidurbraut allar borgir vid ána Abron, allt út ad sjó. 25. Og hann vann allt Kilikíu hérad, og fyrirfór øllum sem honum veittu mótstødu, og komst allt ad Jafets héradi, sem liggur mót sudri, fyrir Arabíu. 26. Og hann fór um Midjansbarna (bygd) og brendi þeirra tjøld og drap þeirra hjardir. 27. Og hann fór í Damaskus (borgar) land, um hveiti uppskéru tímann, og brendi alla þeirra akra, og drap nidur í strá þeirra hjardir og naut, og eyddi þeirra land, og vann á øllum þeirra úngu mønnum med sverdseggjum.

28. Og ótti fyrir honum og skélfíng kom yfir þá sem bjuggu vid sjóinn, þá í Sídon og Týrus og þá í Sur og Okina, og alla þá sem áttu heima í Jemnaan; og innbyggjararnir í Asot og Askalon urdu mjøg hræddir vid hann.

## 3. Kapítuli.

Fridar umleitun vid Holofernes.

1. Og þeir gjørdu til hans sendimenn med fridar ordum, og søgdu: 2. sjá, vér þrælar Nebúkadnesars, hins mikla Konúngs, erum á þínu valdi: far þú med oss eins og þér lítst. 3. Sjá, vorir bústadir og allir hveiti akrar og saudir og naut og allar vorar hjardir og tjøld, eru á þínu valdi: gjør eins og þér lítst. 4. Sjá, líka vorar borgir og þeir sem þar búa, eru þínir þrælar. Kom og far med þær sem þér gott þikir. 5. Og mennirnir komu til Holofernes og færdu honum þessi ord.

6. Og hann færdi sig med allann sinn her ad hafinu og lagdi setulid í þær víggirdtu borgir, og tók úr þeim útvalda menn, sér til styrktar (aptur). 7. Og þeir tóku vid honum, þeir, og allt landid um kríng, med krønsum, dansi og hljódfærum. 8. Og hann eyddi allt þeirra hérad, og hjó upp þeirra skógar lunda, og ætladi sér ad afmá alla gudi jardarinnar, svo allar þjódir þjónudu Nebúkadnesar einum, og allar túngur og kynkvíslir ákølludu hann sem Gud. 9. Og hann kom gagnvart Esdrelom, í nánd vid Dotea, sem liggur fyrir þeim mikla Júdeu vegi. 10. Og hann setti herbúdir sínar milli Geba og Skytopolis, og var þar um kyrt í

mánud, til ad ná ad sér øllum farángri síns strídshers.

## 4. Kapítuli.

Gydíngar búast til varnar.

1. Og Ísraelssynir sem bjuggu í Júdea spurdu allt þad er Hólofernes, ædsti herforíngi Nebúkadnesars, Konúngs Assýríu manna, gjørdi þjódunum, og hvørsu hann rændi øll þeirra musteri, og vann þeim tjón. 2. Og þeir urdu úr hófi óttaslegnir fyrir honum, og voru mjøg hræddir um Jerúsalem og musteri Drottins þeirra Guds. 3. Því nýlega vóru þeir komnir heim aptur úr herleidíngunni, og fyrir skømmu hafdi allt Júda fólk saman komid, og áhøldin og altarid og musterid hafdi þá verid helgad aptur eptir vanhelgunina. 4. Og þeir sendu um allt Samaríu hérad, og til Konas og til Betóron og Belmen og Jerikó, og til Kóba og Aesóra og í Salems dal. 5. Og þeir settu varnarlid á allar brúnir hárra fjalla, og settu múrveggi kríngum øll þorp á þeim, og vistir til strídsforda; því nýlega voru þeirra akrar uppskornir. 6. Og høfudpresturinn Jójakim, sem á sama tíma var í Jerúsalem, skrifadi til innbyggjurunum í Betylua og Betomestaim, sem liggur gagnvart Esdrelom, fyrir framan akurinn hjá Dótaim. 7. Og sagdi, ad þeir skyldu hafa vardmenn í stígnum uppá fjallid, því þar lægi vegurinn inn í Júdaland, og væri audveldt ad banna þeim inngaungu, því vegurinn væri þraungur, í mesta lagi fyrir tvo menn (samsída). 8. Og Ísraelssynir gjørdu eins og Høfudpresturinn Jójakim og allt rád Ísraels fólks sem átti heima í Jerúsalem, hafdi þeim bodid. 9. Og allir Ísraelsmenn kølludu til Guds med mikilli einlægni, og audmýktu sínar sálir med mikilli einlægni. 10. Þeir og þeirra konur og þeirra børn og þeirra fénadur; og allir útlendir, eda daglauna menn og þeirra fyrir penínga keyptu þrælar, løgdu sekk um sínar lendar. 11. Og allir Ísraels menn og konur og børn og Jerúsalems innbúar féllu fram fyrir musterinu og køstudu øsku yfir høfud sér, og útbreiddu sekkin fyrir Drottni, og vøfdu sekk um altarid. 12. Og þeir kølludu til Ísraels Guds, einhuga, alvarlega, ad hann gjæfi ekki þeirra børn til ráns, né þeirra konur til herfángs, né stad þeirra eignar til eydileggíngar, né helgidóminn til vanhelgunar, svívirdíngar og spotts, heidíngjunum. 13. Og Drottinn heyrdi þeirra raust, og leit á þeirra þreyngíng. Og fólkid fastadi marga daga í øllu Júda landi og Jerúsalem, fyrir helgidómi Drottins þess almáttuga. 14. Og høfudpresturinn Jójakim og allir sem stódu fyrir Drottni, prestarnir og þjónar Drottins, vafdir sekk um þeirra lendar, frambáru þá daglegu brennifórn og áheitin og fríviljugar gáfur fólksins. 15. Og aska var á þeirra høfudbøndum, og þeir kølludu til Drottins af øllum mætti, ad hann nádarsamlega liti til alls Ísraels húss.

## 5. Kapítuli.

Akíor rædur Hólofernes frá því forgéfins ad áreita Gydínga.

1. Þetta var sagt Hólofernes ædsta herforíngja þess Assýriska hers, ad Ísraels synir byggju sig út til stríds, og hefdu læst veginum yfir fjøllin, og sett vígi á brúnir þeirra háu fjalla, og lagt hindranir á sléttlendid. 2. Þá vard hann ákaflega reidur, og kalladi alla Móabshøfdíngja og fyrirlida Ammonssona, og alla høfudsmenn í landinu vid sjóinn, 3. og sagdi vid þá: látid mig þó vita, þér Kanaanssynir, hvada fólk þad er, sem býr á fjøllunum, og í hvada borgum þad býr, og hvørsu mikil þess makt er, og hvar í þess styrkur og máttur er innifalin, og hvør yfir þad er settur, sem Konúngur, og er fyrir þess her, 4. og

hvørs vegna þeir hlídrudu sér hjá, fremur ødr-
um innbúum vesturlanda, ad gánga út á móti
mér. 5. Og Akior høfudsmadur allra Amm-
onsjona mælti til hans: minn herra heyri tal
af munni síns þjóns: svo mun eg segja þér
sannleikann um fólk þad, sem býr á þessum fjøll-
um, í nánd vid þig; og eingin ósannindi skulu
koma fram af munni þíns þjóns. 6. Þetta
fólk er komid af Kaldeumønnum. 7. Fyrst
áttu þeir heima i Mesópotamíu. En af því
þeir vildu ekki adhyllast Gud sinna fedra, sem
bjuggu í Kaldeulandi, 8. og viku af vegum
fedra sinna, og tilbádu himinsins Gud sem
þeir høfdu lært ad þekkja, svo ráku þeir þá
burt frá augsýn sinna guda, og þeir flýdu til
Mesópotamíu, og stadnæmdust þar leingi. 9.
Og þeirra Gud baud þeim ad flytja sig úr
sínum adseturssstad, og fara inn í Kanaans
land. Og þeir bjuggu þar, og urdu ríkir af
gulli og silfri og mjøg miklum fénadi. 10. Og
þadan fóru þeir til Egyptalands, því húngurs-
neyd þreingdi ad Kanaanslandi; og þeir voru
þar þángad til þeir snéru þadan aptur. Og
þeir urdu þar ad miklum fjølda, og þeirra kyn
vard ekki talid. 11. Þá reis Egyptalands
Kóngur móti þeim, og menn beittu brøgdum
vid þá med tígulsteins erfidi, og þraungdu þeim
og gjørdu þá ad þrælum. 12. Og þeir køll-
udu til síns Guds, og hann sló allt Egypta-
land med plágum, hvar vid eingin lækníng
fékkst. Og Egyptskir ráku þá burt frá sér.
13. Og Gud lét þad rauda haf fyrir þeim
þorna, 14. og leiddi þá veginn til Sínaí og
til Kades-Barnea, og þeir hrøktu burt alla
sem bjuggu í eydimørkinni. 15. Og þeir bjuggu
í Amoríta landi, og afmádu alla Hesboníta med
sínum mætti. Og þeir fóru yfir Jórdan, og
unnu allt fjalllendid, 16. og ráku burt frá
sér Kananíta, Feresíta, Jebúsíta, Sikemíta og
alla Gergesíta, og bjuggu lángan tíma í land-
inu. 17. Og svo leingi sem þeir syndgudu
ekki fyrir sínum Gudi, var hamíngjan med
þeim, því sá Gud, sem hatar ránglæti var
med þeim. 18. En þegar þeir viku af þeim
vegi sem hann hafdi bodid þeim, urdu þeir
mjøg svo upprættir í mørgum strídum, og
burtfluttir í ønnur lønd, og musteri þeirra
Guds var í grunn nidurrifid, og þeirra borgir
unnar af mótstødumønnunum. 19. En nú,
þá þeir hvurfu aptur til síns Guds, eru þeir
komnir heim úr þeirri tvístrun, sem þeir høfdu
fyrir ordid, og hafa nád aptur Jerúsalem, hvar
þeirra helgidómur er, og hafa sest ad á fjøll-
unum, því þau voru eydimørk. 20. Og nú
húsbóndi og herra, sé yfirtrodsla medal þessa
fólks, og syndgi þeir móti sínum Gudi: svo
látum oss eptir því grenslast, hvør yfirtrodsla
á þeim hvílir, og leggja af stad og vid þá strída.
21. En ef eingin sekt hvílir á þeirra þjód,
svo fari minn herra framhjá þeim, kannské
þeirra Drottinn og þeirra Gud haldi skildi yfir
þeim, og vér verdum allri jørdunni ad skopi.

22. En sem Akior hætti ad tala þessi ord,
møgladi fólkid, sem stód í kríngum tjaldid. Og
Hóloferness voldugu menn, og allir sem bjuggu
í landinu vid sjóinn, og Móabítar søgdu, ad
vinna skyldi á honum, 23. „því ekki erum
vér hræddir vid Israelssyni (søgdu þeir). Því
sjá! í þeirri þjód er eingin kraptur og eingin
máttur til hardrar orustu. 24. Látum oss
því móti þeim fara, og þeir munu verda bráð
øllum þínum her, vor herra Hólofernes".

## 6. Kapítuli.

Hólofernes illskast. Israelítar leita Guds.

1. Og þegar buldur mannanna á samkom-
unni lægdist, mælti Hólofernes, ædsti herfor-
íngi þess Assýriska hers, til Akior, í áheyrn
alls fólks heidíngjanna og til Móabssona: 2.
Hvør ert þú þá Akior og þér leigulidar Efra-

ims, ad þú hefir spád (prédikad) fyrir oss nú í dag, og sagt, ad menn skuli ei berjast vid Ísrael, þared þeirra Gud muni verja þá? Hvør er þá Gud nema Nebúkadnesar? 3. Þessi mun senda sinn her, og afmá þá af jørdunni, og þeirra Gud mun ekki frelsa þá; heldur munum vér hans þénarar vinna á þeim sem einn madur væri, og þeir munu ei standast fyrir voru riddaralidi. 4. Því vér munum troda þá í sundur med því, og þeirra fjøll munu fljóta í þeirra blódi, og þeirra vellir fyllast af þeirra líkum, og þeirra fætur munu ei standast fyrir vorri augsýn, heldur munu þeir fyrirfarast, segir Kóngurinn Nebúkadnesar, Herra allrar jardarinnar; því hann mælti: ord míns fólks skulu ei vera hégómi. 5. En þú, Akior, leigulidi Ammons, þú sem hefir talad þessi ord, á degi þinnar sektar, þú skalt ekki framar sjá mitt auglit frá þessum degi, fyrr enn eg hefi hefnt mín á þeirri þjód, sem komin er úr Egyptalandi. 6. Og þá skal sverd míns herra, og fólk þad sem mér þjónar, leggja í gégn þínar sídur, og þú skalt falla medal hinna feldu — þeirra ámedal, þá eg kém aptur. 7. Og mínir þrælar skulu flytja þig uppá fjallid, og láta þig í eina borgina á hædunum, 8. og þú skalt ekki fyrirfarast fyrr enn þú verdur afmádur med þeim. 9. Og þared þú hefir þá von í þínu hjarta, ad þeir verdi ei unnir, svo þarf þitt andlit ekki ad hrædast. Eg hefi þetta sagt, og ekkért mitt ord mun ógjørt verda.

10. Sídan baud Hólofernes sínum þrælum sem stódu í hans tjaldi, ad handtaka Akior og flytja hann til Betylúa og afhenda hann Ísraelssonum. 11. Og hans þrælar handtóku hann og fóru med hann úr herbúdunum á sléttlendinu, og fluttu hann af sléttlendinu uppá fjallid. Og þeir komu ad lindunum sem eru fyrir nedan Betylua. 12. Og sem stadarmennirnir á fjallsbrúninni sáu þá, tóku þeir sín vopn, og géngu úr stadnum, á fjallsbrúnina, og allir slaungu menn vordu einstígid, og køstudu steinum á þá. 13. Þá hopudu þeir nidur af fjallinu, og bundu Akior og létu hann liggja vid fjallsræturnar, og géngu burt til húsbónda síns.

14. Og Ísraelssynir komu nidur úr sínum stad og geingu ad honum (Akior) og leystu hann og fóru med hann til Betylua, og leiddu hann fyrir yfirmenn síns stadar. 15. En þessir voru á þeim tíma Osía, sonur Mika, af Simeons ættkvísl, og Kabris, sonur Gotoniels, og Karmis, sonur Melkiels. 16. Og þeir saman kølludu alla øldúnga stadarins, og þar samansøfnudust allir úngir menn og konur á fundinn. Og þeir leiddu Akior midt á medal alls fólksins, og Osía spurdi hann um þad er skéd var. 17. Og hann svaradi, og sagdi þeim øll ord Hólofernes ráds samkomu, og øll þau ord sem hann taladi midt á medal herforíngja Assurssona, og hvørsu dramblátlega Hólofernes hefdi talad móti Ísraelshúsi. 18. Og fólkid féll fram og tilbad Gud, hrópadi og sagdi: 19. Herra, himinsins Gud, sjá þeirra dramb, og aumkastu yfir eymd vors fólks, og lít á andlit þinna heiløgu á þessum degi! 20. Og þeir hughreystu Akior og hrósudu honum mikid. 21. Og Osía tók hann af samkomunni í sitt hús, og hélt øldúngunum heimbod, og þeir ákølludu Ísraels Gud um hjálp alla þá sømu nótt.

## 7. Kapítuli.

Hólofernes setst um Betylua.

1. En annars dags baud Hólofernes øllum sínum her og øllu sínu fólki, er var komid honum til lids, ad leggja af stad til Betylua, og ad einstígi fjallsins, og berjast vid Ísraelssyni. 2. Þann sama dag tóku sig upp allir

þeirra herfæru menn; og tala þeirra herfæru manna var 170 þúsund fótlids og 12 þúsundir riddaralids, auk farángursins, og þeirra manna, er á fæti fylgdu, mjøg mikill fjøldi.
3. Og þeir settu herbúdir sínar í dalnum nálægt Betylua vid lindina, og útþøndu sig á breiddina, allt ad Dótaim og Bettem, og á leingdina frá Betylua allt til Kyamon, sem liggur gagnvart Esdreloni.
4. En þá Ísraelssynir sáu þeirra fjølda, skélkudust þeir mjøg, og einn sagdi vid annan: nú munu þessir uppeta landid, og hvørki þau háu fjøll, né dalirnir né hædirnar munu bera þeirra þúnga.
5. Og þeir tóku, hvør sín vopn, kveiktu eld á sínum turnum og héldu vørd alla þá sømu nótt.

6. En annars dags útleiddi Hólofernes øll sín hross í augsýn Ísraelssona sem voru í Betylua,
7. og grenslađist eptir stígnum upp ad stadnum og uppleitadi hans vatnslindir, og lét eptir verda hjá þeim, røska menn til stríds, og hann sjálfur hvarf aptur til síns fólks.
8. Og til hans geingu allir fyrirlidar Esaúsona og allir høfdíngjar Móabs fólks, og herforíngjar þeirra vid sjóinn, og mæltu:
9. Vor herra heyri þó vort tal, til þess ekkért óhapp vilji til þínum her!
10. Því þetta fólk Ísraelssona treystir ekki á sín spjót, heldur á hædir síns fjalls, á hvørjum þeir búa; því þad er ekki hægt ad komast uppá brúnir þeirra fjalls.
11. Og stríd nú, herra, ekki á móti þeim, eins og menn strída í fylkíngu: svo mun einginn madur af þínu fólki falla.
12. Vertu í þínum herbúdum, og vardveit alla menn þíns strídshers, og þínir þjónar haldi vørd vid vatnslindirnar, sem koma undan fæti fjallsins;
13. því þar ausa allir innbúar Betylúu vatn; og þorstinn mun deyda þá, og þeir munu géfa upp sinn stad. Og vér og vort fólk viljum fara uppá þá nálægu brún fjallsins, og setja þar vorar herbúdir til ad gjæta þess, ad eínginn madur komist burt úr stadnum.
14. Svo munu þeir ørmagnast af húngri, þeir og þeirra konur og þeirra børn; og ádur enn sverdid yfir þá kémur, leggjast þeir fyrir á strætum síns bústadar.
15. Og svo muntu greida þeim slæm laun fyrir þad, ad þeir gjørdu uppreisn, og geingu ekki á móti þér med fridi.

16. Og þeirra tal gédjadist Hólofernes og øllum hans þénurum, og þeir áliktudu ad gjøra, sem þeir høfdu talad.
17. Og Ammonssynir fluttu sínar herbúdir, og med þeim 5 þúsund af Assurs sonum, og settu þær í dalnum, og vørdu vatnid og vatnslindir Ísraelssona.
18. Og synir Esaú fóru af stad og Ammonssynir, og settust á fjallid, gagnvart Dótaim. Og þeir sendu nokkra af sínu lidi sudur og austur mótsvid Ekrebel, sem liggur nálægt Kús, vid ána Mokmúr. Og hinn annar her Assýriskra hafdi herbúdir á sléttlendinu, og þakti allt landid, og þeirra tjøld og þeirra farángur var í herbúdunum í mikilli þyrpíngu, og þetta var mjøg mikill fjøldi.

19. En Ísraelssynir kølludu til Drottins þeirra Guds; því þeim var horfin hugur, af því allir þeirra óvinir umkríngdu þá, og ekki var gjørlegt undan ad komast.
20. Og um kríng þá voru allar herbúdir Assýriskra, fótfólkid og vagnarnir og riddaralid þeirra, 44 daga; og tóm urdu øll vatnsílát innbúanna í Betylúa.
21. Og brunnarnir voru tæmdir, og þeir høfdu ekki vatn til sadníngs ad drekka fyrir einn dag; því eptir skamti var þeim géfid ad drekka.
22. Og þeirra børn og þeirra konur ørmøgnudust, og úngmennin urdu magnlaus af þorsta, og duttu nidur á strætum stadarins og í gaungum portsins, og einginn máttur var framar í þeim.

23. Þá safnadist allt fólkid til Ossía og herforíngja stadarins, úngir menn og konur

og børn og kølludu með hárri rødd og søgðu
í áheyrn allra øldúnganna: 24. Guð sé dóm-
ari milli vor og yðar, því þér hafið mikil ráng-
indi í frammi haft við oss, að þér hafið ekki
beiðst friðar af Assúrs sonum. 25. Og nú
er eingin hjálp fyrir oss, heldur hefir Guð seldt
oss í þeirra hønd, svo vér hnígum fyrir þeim
af þorsta og mikilli eymd, 26. og kallið þá nú
híngað og látið fólk Hólofernes, og allan hans
her ræna allan staðinn; 27. því betra er, að
vér verðum þeim að herfángi; að sønnu verðum
vér þrælar en vorar sálir munu lifa, og vér
munum ei sjá dauða vorra barna fyrir vorum
augum og að konur vorar og børn ørmagnist.
28. Vér særum yður við himinin og við jørð-
ina og við Guð vorn og við Drottinn vorra
feðra, sem refsar oss fyrir vorar syndir og fyr-
ir syndir vorra feðra; að hann (nl. Hólofern-
es) gjøri ekki í dag eins og vér søgðum. 29.
Og þar varð mikil einhuga harmakløgun allra
á fundinum, og þeir køllu til Guðs Drott-
ins með hárri raust.

30. Þá mælti Osía til þeirra: verið ør-
uggir, bræður, þolum þetta enn í 5 daga, þáng-
að til Guð vor Drottinn snýr sinni miskun til
vor; því hann mun ei gjørsamlega yfirgefa oss;
31. en þegar þeir eru liðnir, og komi oss eing-
in hjálp, svo skal eg gjøra eins og þér hafið
mælt. 32. Og hann lét fólkið fara frá sér í
þess herbúðir, og þeir geingu uppá múrinn og
í turna þeirra staðar, og konur og børn sendi
hann heim í þeirra hús. Og þeir voru í mik-
illi neyð í staðnum.

## 8. Kapítuli.

Júdit lastar þá gjørðu álíktun, lofar að gjøra hvað
hún géti.

1. Þetta fékk Júdit strax að heyra, dóttir
Merari, sonar Ox, sonar Jósefs, sonar Osíels,
sonar Elkía, sonar Elía, sonar Kelkía, sonar Elí-
abs, sonar Natanaels, sonar Salamíels, sonar
Sarasadai, sonar Ísraels. 2. Og maður henn-
ar var Manasse, af sømu kynkvísl og sømu ætt,
og hann hafði sálast um bygg uppskéru tím-
ann; 3. Því þá hann stóð hjá þeim sem bundu
kérfin á akrinum, kom steikjandi sólarhiti á hans
høfuð, og hann lagðist í rúm, og dó í Bety-
lua, sínum stað, og var grafin hjá sínum
feðrum, á akrinum milli Dótaim og Belamon.
4. Og Júdit lifði í sínu húsi sem ekkja 3 ár
og 4 mánuði. 5. Og hún gjørði sér kofa á
þaki síns húss, og lagði sekk um sínar mjaðm-
ir, og bar sinn ekkjubúníng. 6. Og hún fast-
aði alla daga síns ekkjudóms, nema kvøldið
fyrir hvíldar daginn, og hvíldar daginn, og
kvøldið fyrir túnglkomu daginn, og túnglkomu
daginn, og á hátíðum og gleðidøgum Ísraels
húss. 7. Og hún var fríð sýnum og mjøg
væn í útliti, og maður hennar Manasse hafði
eptirskilið henni gull, silfur og þræla og þern-
ur og fénað og akra sem hún fékk að halda.
8. Og einginn var sá sem bæri henni nokkuð
misjafnt, þareð hún var mjøg guðhrædd. 9.
Og hún heyrði það slæma tal fólksins gégn
fyrirliðunum, því þeir voru huglausir af vatns
skorti; og Júdit heyrði allt það tal sem Osía
hafði við þá átt, hvørsu hann hafði svarið
þeim, að géfa upp staðinn við Assýriska, inn-
an 5 daga.

10. Þá sendi hún sína stofu mey, sem sett
var yfir allar hennar eigur, og lét kalla Osía
og Kabris og Karmis, þá eldstu í staðnum. 11.
Og þeir komu til hennar, og hún sagði við þá:
heyrið mig nú, þér yfirmenn Betylíu innbúa.
Því ekki er yðar orð rétt sem þér hafið tal-
að fyrir fólkinu á þessum degi og hafið svar-
ið eið, hvørn þér frammæltuð milli Guðs og
yðar, og hafið sagt, að þér munduð géfa stað-
inn upp við vora óvini, nema Herrann því
fyrr snéri sér oss til liðveitslu. 12. Og

hvørjir erud þér, ad þér hafid freistad Guds í
dag, og sett ydur í Guds stad medal manns=
anna? 13. Og nú viljid þér komast fyrir
(ransaka) Drottinn þann almáttuga, en þér
munud einkis verda vísari ad eilífu. 14. Því
dýpt mannsins hjarta munud þér ekki finna,
og hugsanir hans sinnis ekki grípa; og hvørn=
ig viljid þér þá fá ransakad Gud, og þekkt
hans hugsanir, og skilid hans þánka? Eing=
anveginn mínir brædur! egnid ei Drottinn vorn
Gud til reidi. 15. Því þó hann vilji ekki
hjálpa oss á fim døgum, hefir hann rád til ad
verja oss, á hvørjum degi sem hann vill, edur
og ad láta oss bída tjón af vorum óvinum.
16. En þér skulud ekki leitast vid ad neyda út
af Drottni vorum Gudi hans rádagjørdir! því
Gud er ei eins og madur ad honum verdi hót=
ad, ei heldur eins og mannsins barn ad hann
med bænum verdi unnin. 17. Vér skulum
því vænta vorrar frelsunar frá honum, og á=
kalla hann oss til hjálpar; og hann mun heyra
oss, ef honum þóknast. 18. Því ekki hefir
uppkomid á vorri tíd, og ekki er til á þessum
degi, kynkvísl edur ætt edur fólk edur stadur
vor á medal, sem tilbidji gudi med høndum
gjørda, sem þó skéd hefir á fyrri tímum, 19.
hvørs vegna vorir fedur voru ofurgéfnir
sverdinu og ráninu og lidu mikid manntjón
fyrir vorum óvinum. 20. En vér þekkjum
eingan annan Gud enn hann: hvørs vegna vér
vonum, ad hann muni ekki gleyma oss eda
nokkru af voru fólki. 21. Því ef vér verdum
unnir, svo mun allt Júda land undirokast, og
vor helgidómur mun verda rændur, og hann
(Drottinn) mun krefjast hans vanhelgunar af
vorum munni. 22. Og hann mun láta oss í koll
koma medal þess fólks, hvar vér þjónum, dráp
vorra brædra, undirokun landsins, eydilegging
vorra eigna, og vér munum verda ásteiting
og hádúng vorum húsbændum (Sigurvegur=
um). 23. Því ekki mun vor þrældómur snúast
til nádar, heldur mun Herrann vor Gud gjøra
hann ad hádúng. 24. Og nú brædur, lát=
um oss sýna vorum brædrum, ad þeirra líf er í
vorri hendi, og helgidómurinn og musterid og
altarid stydst vid oss. 25. En fremur látum
oss gjøra þakkir Drottni vorum Gudi, sem
reynir oss, eins og vora fedur. 26. Munid
þad hvørnig hann fór med Abraham, og
hvørsu hann reyndi Ísaak, og hvad framkom
vid Jakob í Mesópótamíu, þá hann geymdi
sauda Labans módurbródur síns. 27. Því
eins og hann prófadi þá til ad ransaka þeirra
hjarta, svo refsar hann oss ekki, heldur agar
Herrann þá sem hann adhyllast til betrunar.

28. Og Osía sagdi til hennar: allt sem þú
sagdir hefir þú talad af gódum huga, og eing=
inn madur er sá, sem setur sig á móti þínum
ordum. 29. Því ekki verdur þín vitska fyrst
í dag opinber, heldur hefir fólkid fyrri þekkt
þín hyggindi, hvørsu hugsanir þíns hjarta eru
gódar. 30. En folkid þolir mikinn þorsta, og
hefir þvíngad oss til ad gjøra, eins og vér
høfum talad vid þad, og lagt á oss eid, sem
vér getum ekki rofid. 31. Og bid þú nú fyr=
ir oss, ad Drottinn sendi regn, til ad fylla
vora brunna, og svo vér ekki framar ørmøgn=
umst. 32. Og Júdit svaradi þeim: heyrid
mig, eg vil gjøra þad verk, sem spyrjast skal
til sona míns fólks, til allra nidja míns fólks. 33.
Standid vid (borgar) hlidid þessa nótt og eg
vil útgánga med minni stofu mey, og á þeim
sømu døgum, ad hvørjum lidnum þér hafid
sagt, ad þér vildud géfa upp stadinn vid vora
óvini, mun Ísraels Drottinn vitja vor, fyrir
mína hønd. 34. En þér skulud ei grennslast
eptir mínu áformi, því eg mun ekki segja yd=
ur þad, fyrr enn þad er gjørt, sem eg ætla
ad gjøra. 35. Og Osía mælti og fyrirmenn=
irnir vid hana: far þú í fridi, og Gud Drottinn

sé á undan þér til hegníngar vorum óvinum! 36. Og þeir fóru burt úr kofanum, og gengu á sinn vørd.

## 9. Kapítuli.

*Júdit leitar Guds adstodar.*

1. En Júdit féll á sitt andlit, og strádi øsku yfir høfud sér, og lét sjá þann sekk, sem hún hafdi um sig vafid. Og einmidt á sama kvøldi var í Guds húsi í Jerúsalem, tendrad reykélsi. Og Júdit kalladi med hárri rødd til Drottins og mælti: 2. Drottinn Gud míns fødurs Simeons, hvørjum þú gafst í hønd sverdid til hegníngar á heidíngjum, sem losudu belti meyarinnar til kreinkíngar, og gjørdu hennar mjadmir berar til hádúngar, og vanhelgudu hennar blygdun til skammar, því þú sagdir: þad skal ei svo vera, og þeir gjørdu þad. 3. Því ofurgafstu þeirra fyrirmenn mordinu, og blóds úthellíngu þeirra sæng, sem skammadist sín fyrir þeirra pretti, og þú deyddir þeirra þjóna, ásamt húsbændunum, og þá voldugu á þeirra hástólum. 4. Og þú gafst þeirra konur til ráns og þeirra dætur til hertekníngar, og øll þeirra búsgøgn til rupls, þínum elskudu sonum, sem vandlættu þínu vandlæti, og høfdu vidbjód á flekkun síns blóds, og kølludu þig til hjálpar. O Gud, minn Gud, heyr mig líka, ekkjuna! 5. því þú gjørdir þad sem gjørdist fyrri enn þetta, og hitt, og þad sem þar eptir skédi, og þad sem nú skédur; og þad sem sídan kémur, hefir þú hugsad um, og þad skédi sem þú hugsadir. 6. Og þad stendur, sem þú áliktadir og sagdir: sjá, hér em eg! því allt þitt áform er á reidum høndum, og þinn dómur fyrirsjedur. 7. Því, sjá, Assýriskra her er mikill, og drambsamur af hrossum og reidmønnum, reidir hann sig á arm fótlidsins, treystir á skjøld og spjót og boga og slaungu og veit ekki ad þú ert Drottinn, sem sundurmolar stríðskraptana. Drottinn er þitt nafn. 8. Brjót þeirra stirk med þínum mætti, og slá þeirra lid í þinni reidi! því þeir ætla sér ad vanhelga þinn helgidóm, og svívirda bústad þíns dýrdlega nafns hvíldarstadar, og afhøggva med jarni horn þíns altaris. 9. Lít á þeirra drambsemi, send þína grimd yfir þeirra høfud, géf mér, ekkjunni, krapt í mína hønd, til þess, sem eg hefi í sinni! 10. Slá þú med mínum tælandi vørum, þrælinn med fyrirlidanum og fyrirlidann med sínum þénurum, tvístra þeirra drambláta her med kvennmanns hønd! 11. Því ekki er þinn kraptur í fjøldanum, né þinn máttur í þeim sterku; heldur ert þú Gud hinna audmjúku, hjálpari þeirra lítilmótlegu, adstod hinna veiku, verndari þeirra útskúfudu, frelsari þeirra vonlausu. 12. Já! Gud míns fødurs, Gud þinnar eignar Israels, Herra himins og jardar, skapari vatnanna, Konúngur allra þinna sképna, heyr mína bæn, 13. og ljá mér tal og tál til sárs og meidsla þeirra, sem grimd hafa í huga vid þinn sáttmála og þitt heilaga hús og fjallid Sion, og vid bústad þinna sona, 14. og kom til leidar hjá øllu þínu fólki og øllum ættkvíslum, þeirri þekkíngu, ad kannast vid, ad þú sért Gud alls veldis og stirkleika, og ad einginn annar sé Israelsfólks verndari enn þú!

## 10. Kapítuli.

*Júdit kémur í herbúdirnar; er leidd fyrir Hóloferues.*

1. Og sem hún hafdi hætt ad kalla til Israels Guds, og var búin ad tala øll þessi ord, stód hún upp, 2. og kalladi á sína stofumey og gékk nidur í húsid, í hvørju hún bjó á hvíldardøgum og á þeirra hátídum, 3. og lagdi af sér sekkinn, hvørjum hún var klædd, og fór úr ekkjubúníngnum, og þvodi líkama sinn í vatni, og smurdi hann med feitum smyrslum, greiddi hár sitt, batt um þad bandi, og fór í sinn hátída búníng, sem hún hafdi klædst med-

an madur hennar Manasße lifdi, 4. og batt sóla undir sína fætur, lét á sig armbønd, spengur og fíngurgull og eyrnahríngi og allt sitt skart, og bjó sig mikid vel, til ad ginna augu þeirra manna sem hana sæu. 5. Og hún fékk sinni stofumey belg, fullan af víni og krús fulla af vidsmjøri, og fyllti sekk af méli og þurrum fíkjum og fínum braudum, vafdi svo utan um allt þetta og lagdi henni á bak. 6. Og sídan gengu þær ad hlidi stadarins Betyluía, og fundu þar standandi Osía og øldúnga stadarins Kabris og Karmis. 7. En sem þeir sáu hana hvørsu hennar andlit var ordid umbreitt og hennar búníngur ólíkur þeim fyrri, furdadi þá úr øllu hófi á hennar frídleika og søgdu vid hana: 8. Gud, vorra fedra Gud, géfi þér nád og fullgjøri þitt fyrirtæki, Israelssonum til hróss og Jerúsalem til vegsemdar! og hún tilbad Gud, 9. og mælti til þeirra: bjódid ad hlidi stadarins sé upplokid fyrir mér, ad eg komist út til ad framkvæma þad, sem þér hafid talad um vid mig! Og þeir budu þeim úngu mønnum ad ljúka upp fyrir henni eins og hún hafdi umbedid. 10. Og þeir gjørdu svo. Og svo gékk Júdit út, hún og hennar þerna med henni. En stadarmennirnir horfdu eptir henni, medan hún gékk nidur fjallid, þángad til hún var komin nidur í dalinn, og þeir sáu hana ekki leingur.

11. Og þær geingu beint áfram í dalnum, og utustu verdir Assýriskra mættu þeim. 12. Og þeir gripu þær og spurdu: hvørra manna ert þú? og hvadan kémur þú? og hvørt fer þú? Og hún mælti: Eg em dóttir Hebreskra, og flý frá þeim, af því þeir munu ydur géfnir verda ad brád, 13. og eg vil fara til Hólofernes, ædsta hershøfdíngja fyrir ydar her, til ad færa honum sannleiks ord, og eg vil vísa honum á veg, sem hann skal fara, til ad vinna allt fjallid, svo ekkért af hans mønnum farist, ekkért hold, og eingin sál. 14. Enn sem mennirnir heyrdu hennar tal og virdtu fyrir sér hennar andlit, og sýndist þad addáanlegt sakir frídleika, svo søgdu þeir vid hana: 15. þú hefir frelsad þína sál, ad þú hradadir þér ad stíga nidur til vors herra, og gakk nú í hans tjald, og nokkrir af oss skulu fylgja þér, þar til þeir afhenda þig í hans hønd. 16. Og þá þú stendur fyrir hans augliti, skalt þú ei skélfast í þínu hjarta, heldur kunngjør þú þín ord, svo mun hann vel vid þig gjøra. 17. Og þeir kusu til af sínum flokki hundrad menn, og fengu henni þá, og hennar stofu mey, til fylgdar, og þeir fóru med þær ad tjaldi Hólofernes.

18. Og þar vard ókyrd í øllum herbúdunum, því hennar koma fréttist í tjøldin; og menn komu og umkríngdu hana, þá hún stód fyrir utan Hólofernes tjald, þángad til menn høfdu látid hann vita þad. 19. Og menn furdadi á hennar frídleika, og sakir hennar dádust menn ad Israelssonum, og hvør sagdi vid annan: hvør gétur fyrirlitid þad fólk sem hefir slíkar konur sín á medal? því þad er ekki gott ad láta einn mann af þeim eptir verda, sem kynnu geta nád undir sig allri jørdinni ef þeir væru sparadir. 20. Og vardmennirnir hjá Hólofernes komu út og allir hans þénarar, og leiddu hana inn í tjaldid. 21. Og Hólofernes sat á sínu rúmi undir flugnaneti sem var úr purpura, og gulli og smaragd og dýrum steinum. 22. Og menn søgdu honum af henni og hann gékk fram í fremra tjaldid og voru bornir fyrir honum ljósastjakar úr silfri. 23. En er Júdit kom fyrir hans augsýn og hans þénara, furdadi alla fegurd hennar andlitis, og hún féll á sína ásjónu og beigdi sig nidur fyrir honum, og hans þénarar reistu hana á fætur.

V. 21. Flugnanet. Ur svo nefndum dúk voru gjørd rúmtjøld í austurløndum, og géfur nafnid víst til kynna þeirra tilgáng og nytsemi.

## 11. Kapítuli.

Hólofernes finnst mikid um vitsmuni og frídleik konunnar.

1. Og Hólofernes sagdi vid hana: vertu
óhrædd, kona, óttast ekki í þínu hjarta! því
híngad til hefi eg eingum manni mein gjört,
sem vildi þjóna Nebúkadnesar, herra allr-
ar jardarinnar. 2. Og hvad nú þitt fólk á-
hrærir, sem býr á fjallinu, hefdi þad ei fyr-
irlitid mig, svo mundi og ei hafa lypt spjóti á
móti því, þeir géta kénnt sjálfum sér um. 3.
Og segdu mér nú hvørsvegna þú ert frá þeim
hlaupin og til vor komin? Því þú ert komin
(þér) til heilla. Vertu med gódu gédi, þú
skalt lifa þessa nótt og leingur. 4. Því eing-
inn madur mun gjøra þér nokkud til meins,
heldur munu menn gjøra þér vel til, eins og
þjónum míns herra, Kóngs Nebúkadnesar, er
gjørt. 5. Og Júdit sagdi vid hann: medtak
nádarsamlega ord þinnar ambáttar og leyf
þinni þernu vid þig ad tala, og eg mun einga
lýgi kunngjøra mínum herra á þessari nóttu.
6. Og ef þú hlýdnast ordum þinnar ambátt-
ar, mun Gud med þér fullgjøra verkid, og
þad mun ei bregdast, ad minn Herra komi
fram sinni ætlan. 7. Því svo sannarlega sem
Nebúkadnesar lifir, Konúngur allrar jardarinn-
ar, og hans veldi lifir, sem sendi þig til ad
koma øllu, sem lifir, í ordu; því þú gjørir ei
ad eins honum menn undirgéfna, heldur og
munu dýr merkurinnar, fénadurinn og fuglar
himinsins fyrir þitt veldi lifa (undir) Nebúkad-
nesar og øllu hans húsi. 8. Því vér høfum
spurn af þinni vitsku og hyggindum þíns anda,
og allri jørdunni er þad kunnugt, ad þú einn
ert framúrskarandi í øllu ríkinu, og voldugur í
þekkíngu og addáanlegur í herstjórn. 9. Og
hvad nú þad tal áhrærir, sem Akior flutti á
þinni rádssamkomu, svo høfum vér heyrt hans
ord; því Betylúu menn hafa látid hann lifa,
og hann hefir sagt þeim, þad sem hann taladi
hjá þér. 10. Þess vegna húsbóndi og herra!
forsmá ekki hans tal, heldur legg þad upp á
hjartad; því þad er satt. Því vor þjód verd-
ur ekki strøffud, ekkért megnar sverdid móti
henni, þegar þeir ekki syndga móti sínum Gudi.
11. Svo ad minn herra sleppi nú ekki voninni
og verkinu, þá er nú daudinn kominn yfir þá,
og syndin hefir gripid þá, med hvørri þeir
munu egna sinn Gud til reidi, undir eins og
þeir adhafast ránglæti. 12. Þar ed nefnilega
matvæli þeirra voru þrotin, og allt vatn vant-
adi, álíktudu þeir ad leggja hønd á sinn fén-
ad, og ætla sér nú ad eta allt, sem Gud hefir
í þeirra løgum bannad þeim ad eta. 13.
Og þeir hafa líka álíktad ad eta frumgróda
kornsins, og tíundir vínsins og vidsmjørsins,
sem þeir hafa geymt og helgad handa prest-
unum, sem standa fyrir augliti vors Guds í
Jerúsalem, og þetta má jafnvel einginn af voru
fólki snerta med høndunum. 14. Og þeir
hafa sendt til Jerúsalem — því einnegin þeir,
sem þar búa, hafa gjørt hid sama — til ad
sækja sér leyfi til rádsins. 15. Og þad mun
ské, er þeim verdur þad kunngjørt, og þeir
gjøra þad, ad þeir verda þér ofurgéfnir til tor-
tíníngar á þeim sama degi. 16. Þess vegna
er eg þín ambátt, sem vissi allt þetta, frá
þeim flúin; og Gud hefir sendt mig til ad fram-
kvæma med þér þá hluti, sem øllum mønnum
munu ofbjóda, hvør sem þá spyr. 17. Því
þín ambátt er gudhrædd, og þjónar dag og
nátt himinsins Gudi; og nú vil eg hjá þér
vera, minn herra, og þín ambátt mun á nótt-
unni gánga útí dalinn, og eg mun bidja
Gud; og hann mun segja mér, nær þeir hafa
syndina drýgt. 18. Og þá mun eg koma og
láta þig vita: þá leggur þú af stad med all-
ann þinn her, og einginn af þeim mun veita
þér fyrirstødu. 19. Og eg mun leida þig

midt um Júda land, þángad til þú ert kominn gagnvart Jerúsalem, og þar vil eg reisa þitt hásæti, og þú munt reka þá þadan sem saudi, sem eingan hirdir hafa, og einginn hundur skal gélta ad þér med túngunni. Því þetta er mér opinberad og kunngjørt, og eg er send, til ad láta þig vita þetta.

20. Og hennar tal gédjadist Hólofernes, og øllum hans þénurum, og øllum hans þernum, og dádust ad hennar vísdómi og søgdu: 21. þvílík kona er ekki til frá einum enda jardarinnar til annars, svo fríd og svo skynsøm í tali. 22. Og Hólofernes sagdi vid hana: Gud hefir gjørt vel ad senda þig á undan fólkinu, svo sigurinn komi í vora hønd, en eydilegging yfir þá sem hafa forsmád minn herra. 23. Og sannarlega ert þú føgur álits, og ypparleg í þínu tali! Já, ef þú gjørir eins og þú hefir talad, svo skal þinn Gud vera minn Gud, og þú skalt búa í húsi Nebúkadnesars Konúngs og verda nafnfræg í øllum heimi.

## 12. Kapítuli.

*Géstabod hjá Hólofernes.*

1. Eptir þad skipadi hann ad fara med hana þángad, hvar hans silfur-bordbúnadur var settur, og þar lét hann tilreida henni máltíd, af sínum matvælum og drykk af sínu víni. 2. En Júdit sagdi: Eg mun ei þar af eta, svo ekki verdi hneixli, heldur skal mér matreidt verda af því sem eg hefi haft med mér. 3. Og Hólofernes sagdi vid hana: En þegar þad er þrotid, sem þú hefir medferdis, hvadan gétum vér þá útvegad þér nokkud þessháttar? því einginn er hjá oss af þinni þjód. 4. Og Júdit sagdi vid hann: svo sannarlega sem minn herra lifir, þín þerna mun ei hafa lokid því sem hún hefir medferdis, fyrr enn Herrann framkvæmir fyrir mína hønd, þad sem hann hefir áliktad. 5. Og Hólofernis þénarar fóru med hana í tjaldid, og hún svaf til midnættis, og fór á fætur þegar komid var ad morgunvakt. 6. Og hún sendi til Hólofernes og sagdi: minn herra bjódi, ad þín þerna fái ad gánga út til bænagjørdar! 7. Og Hólofernes baud lífvøkturunum ad hindra hana ekki. Og hún var í herbúdunum í þrjá daga, og gékk á næturnar út í Betylúu dal, og badadi sig í lind hjá herbúdunum. 8. Og sem hún sté upp (úr lindinni) bad hún Drottinn, Ísraels Gud, ad greida sér veg sínu fólki til frembar. 9. Og eptir ad hún, hrein ordin, kom tilbaka, var hún í tjaldinu þángad til menn, um kvøldid, báru henni hennar mat.

10. Og þad skédi á fjórda degi, ad Hólofernes héldt veitslu þjónum sínum einum, og baud eingum í samkvæmid sem sýslan høfdu. 11. Og hann sagdi vid Bagóas gélding, sem var settur yfir allt hans: far þú og yfirtala þá Hebresku konu, sem hjá þér er, ad hún komi til vor, og eti og drekki med oss, 12. því sjá, þad væri skømm fyrir oss, ef vér létum frá oss slíka konu, án þess ad hafa vid hana feingist, því ef vér samløgumst henni ekki, svo mun hún gjøra gis ad oss. 13. Og Bagóas gékk frá Hólofernes og gékk inn til hennar og mælti: þessi frída stúlka veigri sér ekki vid, ad koma til míns herra, til þess ad fá sæmd fyrir hans augliti, og til ad drekka vín med oss í føgnudi, og til ad verda eins og adrar dætur Assurs sona, sem eru í Nebúkadnesars húsi! 14. Og Júdit svaradi honum: hvør er eg, ad eg skyldi mótsegja mínum herra? Allt hvad honum þóknast vil eg, sem skjótast gjøra, og þad skal vera mín gledi medan eg lifi. 15. Og hún stód upp og bjó sig í allt kvennskart. Og stofumey hennar gékk ad, og breiddi út handa henni dúk frammi fyrir Hólofernes á jørdina, þann sem hún hafdi fengid af Bagóas til hennar daglegu máltídar,

til þeſs hún lægi þar á medan hún matadiſt.
16. Og Júdit kom inn (í tjaldid) og lagdiſt
nidur; og hjarta Hólofernes vard frá ſér num-
id ſakir hennar, og hans ſál ólgadi, og hann
lángadi mjøg til ad leggjaſt med henni; og
hann hafdi leitad tækifæris ad glepja hana frá
þeim degi ad hann hafdi ſjed hana. 17. Og
Hólofernes ſagdi vid hana: drekk þú nú ſamt,
og vertu gladvær med oſs! 18. Og Júdit
mælti: eg ſkal drekka, herra, því nú þikir mér
líf mitt gøfuglegra heldur enn nokkurn tíma
(ádur) frá minni fædíngu. 19. Og hún tók
og át og drakk frammi fyrir honum, þad ſem
hennar þerna hafdi matreidt. 20. Og Hóló-
fernes hafdi gledi af henni og drakk mjøg mik-
id vín, meira vín, enn nokkurn einn dag ádur,
frá því hann fæddiſt.

## 13. Kapítulí.

*Júdit høggur høfudid af Hólofernes.*

1. En er frammordid var ordid, hrødudu
þjónar hans ſér í burt. Og Bagóas læſti
tjaldinu ad utanverdu, og læſti úti frá augliti
ſíns herra þá ſem vid høfdu verid, og þeir
geingu í ſínar hvílur, því þeir voru allir
þreittir, því veitſlan hafdi leingi ſtadid. 2.
En Júdit var látin eptir vera í tjaldinu, og
Hólofernes var út af dottinn á ſína ſæng; því
hann var dauda drukkinn. 3. Og Júdit hafdi
ſagt ſinni þernu ad ſtanda fyrir utan ſitt ſvefn-
herbergi, og bída ſinnar útgaungu, eins og
daglega, því hún hafdi ſagt ad hún vildi
gánga út til bænagjørdar; og vid Bagóas
hafdi hún talad á ſømu leid. 4. Þegar allir
voru nú geingnir burt, og einginn madur var
eptir ordinn í ſvefnherberginu, hvørki ſmár né
ſtór, gékk Júdit ad ſinni ſæng, og ſagdi í
ſínu hjarta: Drottinn Gud, alls máttar, lít, á
þeſsari ſtundu á verk minna handa Jerúſal-
em a) til ſóma! 5. Því nú er tækifærid ad
lidſinna þinni erfd, og fullkomna mitt áform,
til tjóns þeim óvinum, er móti oſs hafa riſid.
6. Og hún gékk ad rúmſtudlinum vid høfda-
lag Hólofernes, og tók þadan ſverd hans, 7.
og gékk ad rúminu, og greip í hans høfudhár
og mælti: ſtyrk mig, Israels Gud, á þeſsari
ſtundu! 8. Og hún hjó tvíſvarſinnum á háls-
inn á honum af øllum mætti, og hjó af hon-
um høfudid. 9. Og velti hans líkama úr
rúminu og tók flugnanetid af rúms ſtudlunum.
Og ſtrax þar eptir gékk hún út, og fékk þernu
ſinni Hólofernis høfud. 10. Og hún lét þad í
ſinn malpoka. Og þær geingu bádar út, eptir
þeirra venju til bæna. Og þær geingu um
herbúdirnar, og ſneiddu fyrir dalinn, og geingu
upp Betylúu fjall, og komu ad borgar hlidinu.
11. Og Júdit kalladi áleingdar til vard-
manna borgarinnar: ljúkid upp, ljúkid þó upp
hlidinu! Gud er med oſs, vor Gud, til þeſs ad
ſýna ennú Israel (Jerúſalem) ſinn mátt, og ſitt
veldi gégn óvinunum eins og hann hefir líka
gjørt í dag. 12. Og ſem ſtadarmenn heyrdu
hennar rauſt, flýttu þeir ſér nidur ad hlidi ſinn-
ar borgar, og heimtu ſaman øldúnga ſtadarins.
13. Og allir komu, ſmáir og ſtórir, því þeim
kom óvart ad hún kom aptur; og þeir opnudu
hlidid, og tóku móti þeim, og kveiktu eld til
birtu, og ſlóu hríng um þær. 14. En hún
ſagdi vid þá med hárri rauſt: lofid Gud,
lofid Gud, ſem ekki hefir dregid ſína miſk-
un í hlé vid Israelshús, heldur unnid á vorum
óvinum á þeſsari nóttu med minni hendi. 15.
Og hún tók høfudid upp úr pokanum og ſýndi
þad og mælti til þeirra: ſjáid, høfud Hólófern-
is ædſta hershøfdíngja Aſsyriſka herſins, og
ſjá, flugnanetid, undir hvørju hann lá í drykkju-
ſkapnum! Herrann vann á honum med kvenn-
manns hendi. 16. Svo ſannarlega ſem Drott-

V. 4. *a.* Jerúſal; adrir leſa: Israel etc.

inn lifir, sem mig hefir varðveitt á mínum vegi, er eg fór: mitt andlit leiddi hann til hans egin tjóns, og hann drýgði einga synd, með mér til flekkunar og vanvirðu. 17. Og fólkið varð aldeilis hissa og þeir beigðu sig og tilbáðu Guð, og sögðu einhuga: vegsamaður sért þú vor Guð, sem á þessum degi gjörðir að eingu fjandmenn þíns fólks! 18. Og Osía mælti til hennar: blessuð sért þú, dóttir, af Guði þeim æðsta fram yfir allar konur á jörðinni, og vegsamaður sé Guð, Drottinn, sem skóp himin og jörð, og leiddi þig þángað til að sundurmola höfuð vorra óvina fyrirliða! 19. Því aldrei mun þín von (önnur eins von og þú hafðir) víkja úr hjörtum mannanna, sem muna að eilífu til Guðs liðsinnis. 20. Og láti Guð þér þetta snúast til eilífrar sæmdar, svo hann blessi þig með gjæðum, fyrir það þú sparaðir ekki þitt líf þegar fólk þitt var í kröggum, heldur hljópst undir vort fall, og gékkst þann rétta veg fyrir vorum Guði. Og allt fólkið sagði: verði það (svo)! verði það (svo)!

## 14. Kapítuli

Áhlaup Gyðínganna.

1. Og Júdit sagði við þá: heyrið mig þó, bræður, og takið þetta höfuð og heingið það á brjóstverju múrveggsins! 2. Og þegar morgun kémur og sólin rennur upp yfir jörðina, þá taki sérhvör yðar sín vopn, og farið allir herfærir menn úr staðnum og setjið yfir yður höfuðsmann, eins og þér hefðuð í sinni, að fara niður á sléttlendið til útvarða Assúrs sona; en farið samt ekki. 3. Þá munu þessir (varðmenn) grípa til vopna, og gánga í herbúðirnar, og vekja herforíngja Assyriska hersins, og safnast að Hólofernis tjaldi, og ekki finna hann, og ótti mun koma yfir þá, og þeir munu flýa fyrir yður. 4. Þá skuluð þér, og allir sem búa á öllu Israels fjalli, elta þá, og leggja við velli á veginum. 5. En áður enn þér gjörið þetta, þá kallið fyrir mig á Akior Ammonítann, svo að hann sjái og þekki þann, er forsmáði Israels hús, og sendi hann til vor, sem til lífláts. 6. Og þeir kölluðu Akior úr Osía húsi. Og sem hann kom og sá Hólofernis höfuð í hendi manns nokkurs á fólks samkomunni, féll hann á sitt andlit, og leið í aungvit. 7. Og sem þeir reistu hann á fætur, féll hann Júdit til fóta og mælti: vegsömuð sért þú, í hvörjum sem helst Júda híbýlum, og hjá öllum þjóðum, sem munu verða hissa, þá þær heyra þín gétið. 8. Og seg mér nú, hvað þú hefir gjört á þessum dögum! Og Júdit sagði honum frá, miðt á meðal fólksins, því, sem hún hafði gjört, frá því hún fór, og þángað til hún við þá talaði. 9. Og sem hún hætti að tala, lét fólkið í ljósi sinn fögnuð með hárri raust, og lét gleðióp hvella í allri sinni borg. 10. En er Akior sá allt sem Israels Guð hafði gjört, trúði hann fastlega á Guð, og umskar hold sinnar forhúðar, og var inntekinn í Israels hús, allt til þessa dags.

11. En sem dagur rann, heingdu þeir Hólofernis höfuð á múrvegginn, og allir Israelsmenn tóku sín vopn og fóru í hópum niður brekkur fjallsins. 12. En er Assúrs synir sáu þá, sendu þeir til sinna fyrirliða, en þessir komu til hershöfðíngjanna og ofurstanna og allra herstjórnaranna. 13. Og þeir komu til Hólofernis tjalds, og sögðu við þann, sem settur var yfir allt hans: vek þú vorn herra, því þrælarnir hafa dirfst að koma niður á móti oss til orustu, svo þeir verði algjörlega afmáðir! 14. Og Bagóas gékk inn, og klappaði á tjaldsins fortjald: því hann hugsaði, að hann svæfi hjá Júdit. 15. En af því eingínn heyrði, dró hann (fortjaldið) frá og gékk inn í herbergið og fann hann dauðann liggjandi á gólfinu, og hans höfuð var afhöggið.

16. Og hann kalladi med hárri rødd, grét og
kveinadi og hljóðadi og reif sín klædi. 17.
Og hann gékk í þad tjald sem Júdit hafdi
verid í, og fann hana ekki. Og hann hljóp
út til fólksins, og æpti. 18. Þrælarnir hafa
beitt svikum, ein einasta kona enna Hebresku
hefir leidt skømm yfir hús Nebúkadnesars
Kóngs, því sjá! Hóloferneß liggur þar á gólf-
inu, og høfud hans er ekki framar á honum.
19. En sem fyrirlidar Assýriska hersins heyrdu
þessi ord, rifu þeir sín klædi, og urdu mjøg
skélkadir, og þeirra óp og harmatølur hljóm-
udu hátt í herbúdunum.

## 15. Kapituli.

*Assýriskir flýa. Júdit fær sæmdir fyrir sína dád.*

1. Og sem þeir, er í tjøldunum voru,
heyrdu þad, urdu þeir aldeilis hissa á því
sem skéd var, 2. og ótti og skélfing kom yfir
þá, og einginn var framar ødrum fyrir aug-
sýn, heldur stukku allir strax af stad, og flúdu
allir, veginn til eydimerkurinnar, og til fjalls-
ins. 3. Og líka stukku þeir á flótta, sem
lágu á fjallinu í kríngum Betylúu. Þá gjørdu
Israels synir, allir herfærir menn medal þeirra,
árás á þá. 4. Og Osía sendi til Baitomas-
taim og Kóbai og Kóla og í allt Israels
hérad, (menn) sem skyldu kunngjøra þad sem
skéd var, og ad allir skyldu gjøra óvinunum
árás, svo þeir yrdu drepnir nidur í strá. 5.
Þegar Israels synir heyrdu þad, gjørdu þeir
þeim árás allir í einu lagi, og hroktu þá allt
til Kóba; sømuleidis komu þeir frá Jerúsalem,
og frá øllum fjallbygdum; því menn høfdu
látid þá vita þad sem skéd var í herbúdum
þeirra óvina. Og þeir í Gílead og Galileu
hroktu þá med miklu mannfalli, þar til þeir
voru komnir fram hjá Damaskus og hennar
landamerkjum. 6. En adrir af Betylúu inn-
búum rédust á herbúdir þeirra Assýrisku, rændu
þær og audgudust ríkuglega. 7. En Israels
synir sem komu aptur frá manndrápunum, tóku
leyfarnar; og þorpin og bæirnir á fjøllunum
og láglendinu feingu mikid herfáng; því af
miklu var ad taka.

8. Og Jójakim, høfudprestur og ráð Isra-
els sona, þeir sem bjuggu í Jerúsalem, komu
til ad sjá þad góda, sem Herrann hafdi gjørt
Israel, og til ad sjá Júdit, og til ad tala
vinsamlega vid hana. 9. Og sem þeir voru
til hennar komnir, hrósudu þeir henni allir ein-
huga, og søgdu vid hana: þú Israels sómi,
mikla Israels hrós, þú mikla prýdi vors fólks!
10. Þú hefir gjørt allt þetta med þinni hendi;
þú hefir gjørt Israel (mikid) gott, og Gud
hefir haft þar á velþóknan. Blessud sért þú
af Drottni ad eilífu! Og allt fólkid sagdi:
verdi þad! 11. Og allt fólkid rændi herbúd-
irnar í 30 daga, og menn gáfu Júdit Hólo-
fernis tjald og allan hans silfur-bordbúnad og
sængur og kistur og øll hans húsgøgn. Og
hún tók vid því, og flutti þad á sínum múl,
og spenti fyrir sinn vagn, og lét þad þar á.
12. Og allar konur í Israel komu saman, til
ad sjá hana og vegsama hana, og þær gjørdu
dansleik henni til sæmdar. Og hún tók
vidargreinir sér í hønd, og fékk konunum sem
med henni voru. 13. Og þær krýndu sig med
vidsmjørsvidar greinum, hún, og þær sem med
henni voru, og þær geingu fram fyrir fólkid, í
rødinni var hún fremst af øllum konunum, og
allir Israelsmenn komu á eptir vopnadir med
krønsum, og med lofsaung sér í munni.

## 16. Kapituli.

*Júdit sýngur lofsaung, gefur til gudlegrar brúkunar Hólofernis tjald, etc. Deyr.*

1. Og Júdit hóf þessi þakklætis ljód
medal alls Israels, og allt fólkid saung undir
med henni þennan lofsálm. 2. Og Júdit
sagdi: birjid (lofsaung) Gudi mínum, med

trumbum, sýngid mínum Drottni med hornum, látid honum hljóma nýan sálm, lofid hann og vegsamid hans nafn! 3. Því sá Gud sem sundurmolar óvinina er Drottinn, því í herbúdum hans, midt á medal fólksins frelsadi hann mig af þeirra hendi sem ofsóktu mig.

4. Assur kom frá fjöllunum, ad nordan, kom med (mörgum) tíu þúsundum síns stríds hers; þeirra fjöldi trodfyllti dalina, og þeirra hestar þöktu hædirnar. 5. Hann hugsadi sér ad brenna mitt hérad, og deyda mína æskumenn med sverdi, og slá mínum brjóstbörnum nidur vid, og gefa mín börn til ráns, og flytja burt mínar meyar. 6. Drottinn, sá almáttugi, gjördi þá ad eingu med hendi konu nokkurrar.

7. Því þeirra sá hinn voldugi féll, ekki fyrir æsku mönnum, ekki sigrudu hann heldur Titananna synir, ekki rédust á hann þeir hávöxnu risar, heldur tortíndi Júdit Merari dóttir honum med fegurd síns andlitis. 8. Því hún fór úr sínum ekkjubúníngi til lidsinnis þeim adþreyngdu í Ísrael; hún smurdi andlit sitt med smyrslum og hún batt hár sitt í krans, og klæddist línklædum, til ad lokka hann. 9. Skósólar hennar gjördu áhrifur á hans augu, og fegurd hennar andlitis fángadi hans hjarta: sverdid fór í gégnum hans háls. 10. Persar skulfu fyrir hennar dirfsku, og Medar óttudust hennar árædi. 11. Þá glöddust mínir lítilmótlegu, þá fögnudu mínir óstirku; en hinir skélfdust, hófu upp sína raust og flúdu: 12. stúlkna synir lögdu þá í gégn, og þeir særdu þá eins og strokumanna börn: þeir tortíndust fyrir fylkíngu míns Drottins. 13. Sýngja vil eg mínum Gudi nýan sálm, Drottinn, mikill ert þú og dýrdlegur, undrunarverdur ad makt, óvidjafnanlegur. 14. Þér þjóni öll þín sköpun! því þú taladir og hún vard til; þú sendir þinn anda, og hann myndadi, og einginn er sá sem mótstandi þinni raust; 15. því fjöllin hristast í sínum grundvelli ásamt vötnunum, og klettarnir brádna eins og vax fyrir þínu augliti; en þeim, sem þig óttast, ert þú nádugur. 16. Því lítid er allt offur til þægilegs ilms, og enn minna, öll fitan til brennifórnar handa þér: enn hvör sá, sem óttast Drottinn er ætíd mikill. 17. Vei því fólki sem rís upp móti mínu fólki! Drottinn, sá almáttugi mun því refsa á degi dómsins, því hann sendir eld og orma yfir þeirra hold svo þeir veina af kvölinni eilíflega.

18. En eptir ad þeir voru komnir aptur til Jerúsalem, tilbádu þeir Gud: og eptir ad fólkid hafdi hreinsad sig, frambáru þeir sínar brennifórnir, sín fríviljugu offur og gáfur. 19. Og Júdit gaf til gudlegrar brúkunar öll Hólofernis húsgögn, sem fólkid hafdi géfid henni; og líka flugnanetid, sem hún hafdi tekid af hans rúmi, þad gaf hún Drottni sem helga gáfu. 20. Og fólkid var gladt í Jerúsalem fyrir helgidóminum í þrjá mánudi, og Júdit var hjá þeim. 21. En eptir þessa daga fór hvör madur heim til sinnar eignar.

Og Júdit kom til Betylúu og sat ad sinni eign. Og hún var heidrud alla sína æfi í öllu landinu. 22. Og margir beiddu hennar, en hún adhylltist eingan mann alla sína æfi eptir ad madur hennar Manasse dó, og safnadist til sinna fedra. 23. Og hún lifdi mikid lengi, og vard gömul í húsi mannsins síns, hundrad og fimm ára, og gaf húsmey sinni frelsi, og dó í Betylúu, og menn grófu hana í hellir mannsins hennar Manassis. 24. Og Ísraels hús harmadi hana í 7 daga. Og hún skipti sínum eigum, ádur enn hún dó milli ættíngja Manassis, mannsins síns, og sinna ættíngja. 25. Og einginn áreitti Ísraelssyni medan Júdit lifdi, og ekki í lángan tíma eptir hennar andlát.

# Spekinnar Bók eda Salómons Speki.

## 1. Kapítuli.

Amínníng ad stunda réttvísi og vísdóm.

1. Elskid réttvísi, þér jardarinnar dómarar,
hugsid til Drottins med rádvendni, og leitid
hans med einlægu hjarta! 2. því hann lætur þá
finna sig sem ekki freista hans, og opinberar
sig þeim sem ekki vantreysta honum. 3. Því
rángar hugsanir víkja frá Gudi, og sá prófadi
máttur færir dárunum heim sanninn. 4. Því
spekin kémst ekki inn í þá sál sem íllt smídar,
og býr ekki í þeim líkama sem syndin brúkar
(þrælkar). 5. Því sá helgi mentunar andi
flýr hrekki, og fer burt frá óskinsamlegum hugs-
unum, og þegar ránglætid nálgast, þá fælist
hann burt. 6. Því spekin er mannkjærlegur
andi, og lætur ei óhegndan þann lastmálga
fyrir hans varir; því Gud er vitni hans nírna,
og sannur ransakari hans hjarta, og heyrari
hans túngu. 7. Því Herrans andi uppfyllir
heimshrínginn, saman heldur øllu og þekkir
talid (raustina). 8. Því gétur einginn falist
sem rángt talar, og ekki mun refsidómurinn
fram hjá honum fara. 9. Því ransakadar
munu verda rádagjørdir þess ógudlega og heyrn
hans tals mun koma fyrir Drottinn, svo hans
misgjørdir verdi straffadar. 10. Því vand-
lætíngarinnar eyra heyrir allt, og buldur hljód-
skraffins verdur ei hulid.

11. Gjætid ydar því vid ónýtu hljódskrafi,
og vardveitid ydar túngu fyrir lastmælgi! því
heimuglegt sladur fer ei til einkis af stad, og
lygagjarn munnur deydir sálina. 12. Sækist
ei eptir daudanum med villu ydar lífs, og
dragid ei yfir ydur tjón med verkum ydar handa!
13. Því Gud hefir ekki gjørt daudann, og
ekki vill hann ad þeir fyrirfarist sem lifa. 14.
Allt skóp hann svo þad væri til, og heilnæmt,
(þénanlegt til vardveitslu lífsins) er allt sem
í heiminum er til ordid, og í því er ekkért
drepandi eitur, og ekki hefir Helia heldur sitt
ríki á jørdunni. 15. Því réttlætid er ekki
daudlegt. 16. En þeir gudlausu kalla daud-
ann fram med hønd og ordi, þeir álíta hann
vin sinn og fyrirfarast; þeir gjøra sáttmála
vid hann, því þeir eru maklegir til ad verda
hans hlutdeild.

## 2. Kapítuli.

Sama efni.

1. Því þeir segja hvør vid annan (en
þeirra hugsan er raung): „stutt og armædufullt
er vort líf, og þegar mannsins líf á ad enda,
gefst eingin lækníng, og ekki hefir sá þekkst, sem
leysi úr helju. 2. Því af tilviljun erum vér
fæddir, og eptir þetta munum vér vera eins
og vér hefdum ekki verid; því gufa er andar-
drátturinn í vorum nøsum, og hugsanin neisti
af hreifíngu vors hjarta. 3. Sé hann slokn-
adur, verdur líkaminn ad øsku, og andinn hvers-
ur eins og þunnt lopt. 4. Vort nafn gleym-
ist líka med tímanum, og einginn minnist vorra
verka, og vort líf fer framhjá eins og spor ský-
anna og eins og þokan tvístrast, verdur burt-
rekin af sólargeislunum og nidurbæld af henn-

ar hita. 5. Því framlídandi skuggi er vort líf, og vor endir geingur ekki til baka; því hann er ákvedinn, og einginn kémur aptur."

6. „Komid því, og látum oss njóta nálægra gjæda og njóta kostgjæfilega heimsins, þared vér erum úngir! 7. Vér skulum metta oss med dýrum vínum og smyrslum og ekki fari fram hjá oss eitt af vorsins blómstrum! 8. vér skulum krýna oss med rósa hnøppum, ádurenn þær visna. 9. Einginn af oss sé hlutlaus í voru sællífi, allstadar skulum vér eptir skilja merki vorrar gladværdar; því þad er vor hlutdeild og vort hlutfall." 10. Vér skulum undirþrikkja vesælínginn, þann réttláta, ekki spara ekkjuna, og ekki heldur meta ad neinu margra ára hærur gamalmennisins. 11. Vor kraptur sé réttlætis løgmál; því þad sem er veikt af sér, er sjálfsagt ónýtt. 12. Vér skulum sitja um þann réttláta! því hann er oss óþarfur, og hann rís á móti vorum verkum, og bríxlar oss um yfirtrodslur løgmálsins, og kémur á oss illu ordi, fyrir syndir vorrar mentunar. 13. Hann stærir sig af Guds þekkíngunni og kallar sig Herrans barn. 14. Hann er ordinn til, svo hann finni ad vorum hugsunum. 15. Hann er oss erfidur, þúngt er ad sjá hann; því hans líf er ólíkt annara og hans vegir stefna adra leid. 16. Hann álítur oss afhrak, og hann fordast vorn veg, sem vidurstygd. Hann segir endir þess réttláta sælann, og stærir sig af því ad Gud sé sinn fadir. 17. Látum oss vita hvørt hans tal er satt, og reyna hvør afdrif hann fær! 18. því sé sá réttláti Guds son, svo mun hann hjálpa honum og frelsa hann af hendi mótstandarans. 19. Vér skulum pína hann med skømm og kvøl, ad vér lærum ad þekkja hans hógværd og prófum hans þolinmædi! 20. Látum oss dæma hann til svívirdilegs dauda, því lidsinni fær hann eins og hann segir."

21. Þetta hugsa þeir, en þeim skjátlar, því þeirra vondska hefir blindad þá. 22. Og þeir þekkja ekki Guds leyndardóma, og búast ekki vid launum gudrækninnar, ekki heldur hafa þeir skinbragd á ad meta sæmdar umbun saklausra sálna. 23. Því Gud hefir manninn skapad til óforgengilegleika og gjørt hann ad eptirmynd sinnar egin veru; 24. en fyrir Djøfulsins ofund er daudinn innkominn í heiminn, og á (daudanum) kénna þeir sem hann (Djøfulinn) adhyllast.

## 3. Kapítuli.

Sama efni.

1. En réttlátra sálir eru í Guds hendi og eingin pína snertir þær. 2. Í heimskíngjanna augum sýnast þeir daudir vera, og þeirra burtfør er þeim álitin ógjæfa, 3. og þeirra vidskilnadur vid oss eydilegging. En þeir eru í fridi. 4. Og þó þeir eptir manna áliti verdi fyrir hegníngu, svo eru þeir samt vongódir um ódaudlegleika. 5. Eptir litla hirtíngu munu þeir verda ríkuglega sælir; því Gud hefir prófad þá og fundid þá maklega fyrir sig. 6. Eins og gull í deiglunni hefir hann þá prófad og medtekid þá sem fullkomna gédþekka fórn. 7. Og þegar þeirra umbunartími kémur, mun af þeim ljóma og (sá ljómi) sem neistar, yfir strá fara. 8. Þeir munu dæma fólk og yfir þjódum drottna, og Drottinn mun vera þeirra Kóngur ad eilífu. 9. Þeir sem honum treysta munu vid sannleikann kannast, og þeir sem trúir eru í elskunni, munu hjá honum vera; því nád og miskunsemi er (hlutdeild) hans útvøldu.

10. En þeir gudlausu munu lída hegníngu sambodna þeirra þeinkíngarhætti, þeir sem forsmádu þann réttláta, og féllu frá Drottni. 11. Því hvør sem forsmáir vitsku og mentun er ólukkulegur, og hégómi er þeirra von og starf þeirra ónýtt og verk þeirra gagnslaus.

12. Konur þeirra eru heimskar, og börn þeirra vond. 13. Bölvad er þeirra kyn, því sæl er sú ófrjóssama óflekkada kona, sem ekki þýddist mann í misgjörníngi; hún mun medtaka laun, þá sálunum verdur endurgoldid. 14. Og (sæll er) géldíngurinn sem eingin rángindi adhefst med sinni hendi, og ekki hefir upphugsad íllt móti Drottni; því hann mun fá útvalin laun fyrir sinn trúskap og í musteri Drottins gédfeldt hlutskipti. 15. Því góð vidleitni ber ágjæta ávexti, og vísdómsins rót deyr ekki. 16. En hórbörn ná ekki takmarkinu, og sædi ólöglegrar samsængunar mun tínast. 17. Því þó þeir jafnvel fái lánglísi, svo verda þeir lítils metnir, og þeirra elli seinast ærulaus. 18. En ef þeir deya skjótt, hafa þeir einga von, og einga huggun, á úrskurdar deginum. 19. Því ránglátt kyn fær slæman enda.

## 4. Kapítuli.

Sama efni.

1. Betra er barnleysi med dygd; því ódaudleg er hennar endurminníng, þared bædi Gud og menn vid hana kannast. 2. Medan hún er nálæg, stæla menn eptir henni; sé hún fjarlæg hafa menn laungun til hennar; og í eilífdinni krýnd hrósar hún sigri, eptir ad hún hefir sigrad í kappleikum þeirra gallalausu verdlauna. 3. En sá askvæmis margi fjöldi hinna gudlausu mun ekki þrífast, og óskilgétnar plöntur fá aungvar djúpar rætur, og eingan fastan grundvöll. 4. Því þó þeirra ángar blómgist um stund, svo munu þær þó, af því þær standa lausar, skékjast af vindinum, og af stormsins ofbeldi kippast upp frá rótum. 5. Þær ójöfnudu greinir munu afbrotnar verda, og þeirra ávöxtur er ónýtur, óætur og til einkis hæfilegur. 6. Því börn sprottin af ólöglegri samsængun eru vottur foreldranna lasta, þegar ransakad er.

7. En sá réttláti, þótt hann deyi úngur, hann er samt í ró. 8. Því æruverd elli er ekki lánglífi, og hún mælist ekki eptir ára tölu; 9. heldur er vísdómur mönnunum hærur, og flekklaust líf elli aldur. 10. Af því hann gédjadist Gudi og elskadist (af honum), og lifdi medal syndara, var hann burtfluttur. 11. Hann var burt hrifinn, svo vondskan skyldi ei aflaga hans skilníng eda tálid afvegaleida hans sál. 12. Því töfrar lastanna draga dul yfir þad fagra, og svimi girndarinnar fellir óspillt sinni. 13. Fullnuma ordinn á stuttum tíma lifdi hann lángan tíma. 14. Af því hans sál var Drottni þókknanleg, því hradadi hún sér burt frá vondskunni. 15. En fólkid sjer þad og skilur ekki og einnidt leggur ekki þetta uppá hjartad, ad hlutskipti hans útvöldu verdur nád og miskun, og umbun hans gudrækilegu.

16. En sá réttláti sem búinn er ad þjást, fordæmir þann gudlausa sem lifir, og snemma algjörd æska, margra ára elli hinna ránglátu; 17. því þeir sjá endir hins hyggna, en þeir skinja ekki hvad Drottinn hefir um hann ályktad, og til hvörs hann hefir flutt hann á óhultann stad. 18. Þeir sjá þad, og meta þad einkis; en Drottinn mun ad þeim hlæa, og þeir munu eptir þetta verda óvirduglegt hræ, og til skammar medal þeirra daudu ad eilífu. 19. Því hann mun steypa þeim ordlausum apturábak á höfudid, og rífa þá upp frá þeirra grundvelli; og þeir munu ítarlega verda eydilagdir, og í plágu vera, og þeirra minníng mun lída undir lok. 20. Hræddir munu þeir koma þángad, hvar samanreiknadar verda þeirra syndir, og þeirra lagabrot munu, andspænis þeim, sanna þeirra sekt.

V. 2. Má kannské leggja út: þá hún er burt farin sakna menn hennar.

## 5. Kapítuli.

Sama efni.

1. Þá mun sá réttláti standa þeim gagnvart med mikilli einurd, sem þraungvudu honum og møttu einkis hans mædu. 2. Þegar þeir sjá hann munu þeir skélfast af ákafri hrædslu, og þeim mun verda bilt vid þá óvæntu sælu. 3. Þeir munu segja hvør vid annan, þá þeir hafa fengid annad sinni, og andvarpa af ángist andans. „Þessi var þá sá, sem vér høfdum ad athlátri og háduglegu máltæki. 4. Vér dárar héldum hans líf vitleysu, og hans endalykt ærulausa. 5. Hvørnig var hann reiknadur medal Guds barna, og hans hlutskipti er medal þeirra heiløgu! 6. Þá høfum vér villst frá sannleikans vegi, og ljós réttlætisins lýsti oss ekki, og sólin rann oss ekki upp. 7. Vér þreyttum oss á ránglætisins og ógjæfunnar stigum, og fórum um óvegada audn; en Herrans veg þekktum vér ekki. 8. Hvad hjálpadi oss þóttinn, og hvørn hagnad færdi oss audurinn med metnadinum? 9. Horfid er þetta allt eins og skuggi og framhjá farandi bodskapur. 10. Eins og skip, sem fer um vatnsins bylgjur, hvørs rásar eingin spor finnast, og ekki heldur farid eptir þess kjøl í bylgjunum; 11. eda eins og ekkért merki verdur fundid af rás þess fugls sem flýgur um loptid, um þad létta lopt, af vængjanna slætti lamid, og hvínandi krapti klofid, fer fuglinn áfram á veifudum vængjum, og þareptir finnst ekkért merki flugsins í því; 12. eda eins og þá ør er skotid til marks, þad klofna lopt flýtur aptur saman í sjálft sig, svo menn vita ekki framar hvar ørin fór. 13. Svona erum vér líka burthorfnir, eptir ad vér fæddumst, og høfum ekkért merki vorrar dygdar ad sýna, heldur er oss burt kippt midt í vorri vondsku".

14. Já, von þeirra gudlausu er sem fis, sem vindurinn feikir, og sem þunt rik af stormi hrakid, og eins og reykur sem vedrid tvístrar, og eins og endurminníng þess hjálídur, sem ad eins einn dag hjá ødrum gistir. 15. En þeir réttlátu lifa eilíflega, þeirra laun eru í Drottni, og umønnun fyrir þeim hjá þeim ædsta. 16. Þess vegna munu þeir fá þad dýrdlega ríki, og fegurdarinnar kórónu af Drottins hendi, því med sinni hægri hendi mun hann þá verja, og med sínum armi þeim hlífa. 17. Hann mun grípa, sem hertígi, sitt vandlæti og gjøra skøpunina ad vopni til varnar gégn óvinunum. 18. Hann mun klædast réttlætinu sem brinju, og setja alvarlegan dóm sem hjálm á høfudid. 19. Hann mun taka heilagleikann sem ósigranlegann skjøld, 20. og brína, sem sverd, þá straungu reidi, og heimurinn mun med honum strída móti þeim fávísu. 21. Vel hæfandi ørvar eldínganna munu fara og fljúga til marksins, eins og frá hardspentum boga skýanna. 22. Og af steinslaungu reidinnar mun haglsteinum þétt verda kastad; æda mun móti þeim vatn sjáfarins, og vatnsføll munu med offsa samansteypast. 23. Andi almættisins mun móti þeim standa, og sem hvirfilbilur þeim tvístra. Og svo mun ránglætid eydileggja alla jørdina, og illvirki steypa hásætum hinna voldugu.

## 6. Kapítuli.

Sama efni.

1. Heyrid nú, þér Kóngar, og verdid hyggnir! lærid, þér dómarar jardarinnar endimarka! 2. Leggid vid eyrun, drottnendur yfir fjøldanum, og þér sem hefjid ydur yfir þjódanna flokka! 3. Því af Drottni er ydur herradæmid géfid, og valdid af þeim ædsta, sem mun ransaka ydar verk og grennslast eptir ydar rádagjørdum; 4. því, sem þjónar hans Koníngdóms, hafid þér ekki rétt dæmt og ekki hans løgmáls gjætt, né eptir Guds vilja breitt. 5.

Ottalega og skjótlega mun hann yfir ydur koma; því stráungur dómur geingur yfir þá sem vald= id hafa. 6. Því þeim lítilmótlegu er af náð fyrirgéfandi, en þeim voldugu mun verda vold= uglega refsad. 7. Því sá sem drottnar yfir øllum, mun eingan hrædast, og ekki fælast þá miklu; því hann hefir gjørt smáan og stóran, og elur jafnt ønn fyrir øllum. 8. En yfir þá voldugu kémur straung ransókn. 9. Til ydar því, drottnendur, er mitt tal stílad, svo ad þér lærid vitsku, og rasid ekki. 10. Því þeir sem heilaglega vardveita hid heilaga, verda helgadir, og þeir sem slíkt hafa numid, munu fríkéndir verda. 11. Svo verid þá sólgnir í mitt tal, og hafid laungun til þess, og þér munud fá uppfrædíngu!

12. Ljómandi er spekin og blómleg, og aud= veldlega géta þeir, sem hana elska, sjed hana, og þeir sem hennar leita, fundid hana. 13. Hún lætur þá, sem til hennar laungun hafa, þekkja sig ad fyrra bragdi. 14. Sá sem snemma fer á fætur hennar ad leita, mun einga fyrir= høfn hafa, því hann finnur hana sitjandi vid sínar húsdyr. 15. Því ad hugsa um hana er fullkomnun hyggindanna, og hvør sem henn= ar vegna vakir, mun fljótt verda áhyggjulaus. 16. Því hún geingur um kríng og leitar þeirra sjálf sem hennar eru maklegir, og sýnir sig þeim vinsamlega, á þeirra vegum, og mætir þeim í øllum þeirra hugsunum. 17. Þad áreidan= legasta upphaf hennar er laungun eptir upp= frædíngu, en vidleitni ad frædast er elska. 18. En elska er vardveitsla hennar laga, en ad halda løgin er fullvissa um ódaudlegleika, 19. en ódaudlegleikinn flytur (menn) í nánd vid Gud. 20. Laungun til speki leidir til herra= dæmis. 21. Ef þér nú hafid laungun til há= sæta og veldissprota, þér, þjódanna yfirdrottn= endur, svo heidrid spekina, svo þér drottnid eilíflega! 22. En hvad speki sé, og hvørnig hún sé til ordin, þad vil eg kunngjøra, og ei dylja fyrir ydur (hennar) leindardóma; heldur vil eg frá upphafi skøpunar eptirgrenslast, og gjøra hennar þekkíngu ljósa, og ei fara fram hjá sannleikanum. 23. Já, ekki vil eg vera sam= ferda þeirri mögru øfund; því þessi mun aldrei eiga hlut í spekinni. 24. Mergd spekínga er heimsins lán, og hygginn Konúngur velveguan fólksins. 25. Látid ydur því fræda af mín= um ordum, og þad mun ydur ad gagni koma.

## 7. Kapítuli.

Hvornin spekinnar skal leita, og hvad hún sé.

1. Vissulega er eg líka daudlegur madur, líkur øllum (ødrum), nidji þess sem fyrst var skapadur af jørdu, 2. og eg var myndadur sem hold í módurlífi á 10 mánada tíma, í blód samanrunnin af manns sædi, og í mun= adi, samfara svefni. 3. Líka dró eg ad mér, þá eg var fæddur, þad sameiginlega lopt, og datt á þá samkynja jørd, og mitt fyrsta hljód, líkt hjá øllum, sendi eg frá mér grátandi. 4. Í reifum var eg uppfóstradur med áhyggju, 5. því einginn Kóngur hafdi adra birjun til= verunnar; 6. heldur hafa allir sama inngáng til lífsins, og líkan útgáng.

7. Því bad eg, og hyggindi voru mér géf= in; eg kalladi og til mín kom andi spekinnar. 8. Eg matti hana meir enn veldissprota, og hásæti og ríkdóm mat eg einkis í samanburdi vid hana, 9. ekki tók eg heldur til jafns vid hana ómetanlega gimsteina; því allt gull er, hjá henni, lítid sandkorn, og sem skarn er silf= ur ad reikna, móts vid hana. 10. Eg elskadi hana meir enn heilbrygdi og frídleika, og kaus heldur ad eiga hana enn ljósid, þared hennar ljómi slokknar aldrei. 11. En mér hlotnudust med henni øll gjædi, og ótølulegur audur í hennar høndum. 12. Og eg gladdi mig vid allt, því spekin kom med þad; en eg vissi ekki

ad hún var þess módir. 13. Saklauslega nam eg, og øfundslaust midla eg, hennar aud fel eg ekki. 14. Því óþverrandi sjódur er hún mønnunum. Hvør sem hann brúkar, sá hefir (gjørir) vináttu vid Gud, og mæla fram med honum þær gáfur, sem spretta af mentaninni. 15. En Gud veiti mér ad tala eptir ósk, og ad hugsa verdugt því sem (mér) er géfid! Því hann er leidtogi til Spekinnar, og Stjórnari þeirra spøku. 16. Því í hans hendi erum vér og vort tal og øll hyggindi og framkvæmda kunnátta. 17. Því hann gaf mér ósvikula þekkíngu hlutanna, ad skilja byggíngu heimsins og krapt frumefnanna, 18. upphaf og endir og midju tímans, umrásarinnar gáng, og árstídanna umskipti, 19. áranna hrínghlaup og stjarnanna stødu, 20. náttúru sképnanna og gédriki villudýranna, krapta andanna, og hugsanir mannanna, mismun jurtanna og krapt rótanna; 21. og eg þekkti hvad eina sem hulid var og opinbert er; 22. því Spekin, allra hluta meistari, kénndi mér þad. Því í henni er skinugur, heilagur, eingétinn, margskiptur, fínn, kviklegur, lýsandi, flekklaus, bjartur, ómeidanlegur, hid góda elskandi, beittur, óhindranlegur, gódsamur, 23. vinsamlegur, fastur, viss, áhyggjulaus, allt megnandi, allt sjáandi, og alla skinuga, hreina-blída-anda, gégnumfarandi andi. 24. Því kviklegri enn øll hreifíng er Spekin; hún fer og þreyngir sér í gégnum allt, því hún er svo hrein, 25. því hún er andi (andardráttur) Guds máttar, og fær útrás af dýrd, þess sem yfir øllu drottnar: þess vegna gétur ekkért saurugt í hana blandast. 26. Því hún er geisli þess eilífa ljóss, blettlaus speigill Guds framkvæmdar og mynd hans gjædsku. 27. Hún er ein, og megnar þó allt, hún verdur hin sama, og endurnýar þó allt, hún flytur í heilagar sálir frá kyni til kyns, tilreidir Guds vini og spámenn. 28. Því Gud elskar ekkért nema þann sem vid spekina er í sambúd. 29. Hún er fegri enn sólin og efri øllum stjarnarødum, borin saman vid ljósid, reyníst þad, ad hún hefir yfirburdi. 30. Því nóttin kémur eptir þad, en mót spekinni megnar ekkért vondskunnar ofbeldi.

V. 18. Umrásar: nl. himin túnglanna.

## 8. Kapítuli.

Sama efni.

1. Hún nær volduglega frá einum enda (jardarinnar) til annars, og nidurskipar øllu vel. 2. Þessa elskadi eg og sellti frá minni æsku: eg leitadist vid ad leida hana heim til mín, sem brúdur og elskadi hennar fegurd. 3. Hún hrósar sinni ætt, ad því leiti hún umgeingst Gud; og Drottinn allra hluta elskar hana. 4. Því hún er kunnug Guds skilníngs leyndardómum, og velur hans verk. 5. Sé audlegd æskilegt hnoss í þessu lífi: hvad er þá audugra enn spekin, sem aflar alls? 6. En ef ad hyggindin eru aflasøm: hvør medal allra er meiri meistari enn hún? 7. Og elski menn réttvísi: hennar (spekinnar) verk eru dygdir; því hóffsemi og hyggindi kénnir hún, réttvísi og hugprýdi, sem er þad hollasta í manna lífi. 8. En ef menn girnast mikla reynslu, þá veit hún hid umlidna og rædur í þad ókomna; hún skilur talsins huldu meiníngu, og leysir úr gátum; teikn og undur þekkir hún fyrirfram og endir tækifæris og tíma. 9. Þess vegna einsetti eg mér ad flytja hana heim til mín sem stallsystir; því eg vissi uppá víst ad hún mundi ráda mér heilt og hugga mig í áhyggjum og sorg. 10. „Fyrir hennar sakir, (hugsadi eg) mun eg fá hrós medal fólksins, og heidur hjá gømlum og úngum. 11. Í dómi mun eg þykja skarpvitur, og þeir voldugu munu dást ad mér. 12. Þegi eg, svo

munu þeir bíða þess eg tali, og tali eg, svo munu þeir hlýða á, og haldi eg talinu áfram, leggja hønd sér á munn. 13. Sakir hennar mun eg verða ódauðlegur, og eptirskilja eilífa endurminníng hjá mínum eptirkomurum. 14. Eg mun stýra þjóðum, og lýðir munu verða mér undirgéfnir. 15. Ottalegir tírannar munu óttast mig, þá þeir af mér spyrja; á mannfundum mun eg þikja duglegur, og í stríðum øruggur. 16. Í mitt hús inngeinginn mun eg endurnæra mig á henni. Því eingin beiskja er í umgeingni við hana, né sorg í hennar félagskap, heldur glaðværð og føgnuður".

17. Þegar eg hugsaði þetta með sjálfum mér, og yfirvegaði í mínu hjarta, að ódauðlegleiki væri í sambúð við spekina, 18. og ágjæt unaðsemd í hennar vinskap, og óforgeingilegur auður í verkum hennar handa, og hygginði að venja sig á, að umgángast hana, og nafnfrægð að tala við hana: svo fór eg um kríng og leitaði, að eg næði henni til mín.

19. En eg var velartaður barn og hafði feingið góða sál; 20. eða þó heldur, af því eg var góður, svo kom eg (mín sál) í flekklausan líkama. 21. En þareð eg vissi, að eg mundi ei géta náð (spekinni), nema Guð gjæfi mér hana, (og jafnvel var hyggni að vita það, hvørs það er að géfa náðargjøf) svo snéri eg mér til Herrans, og bað hann og sagði af einlægu hjarta:

## 9. Kapituli.

Sama efni.

1. Guð feðranna og Herra miskunseminnar, þú sem alla hluti hefir gjørt með þínu orði, 2. og með þinni speki manninn (svo) tilbúið, að hann drottni yfir þeim skepnum sem þú gjørðir, 3. og stýri heiminum með heilagleika og réttvísi, og haldi dóm með sálarinnar hreinskilni: 4. géf mér speki, sem situr hjá þínu hásæti, og útskúfa mér ekki frá þínum børnum. 5. Því eg er þinn þjón, sonur þinnar ambáttar, breiskur maður, sem lifi stutta stund, og hefi lítin skilníng á réttindum og løgum. 6. Því þó einhvør væri fullkominn meðal mannanna sona, er hann þó samt, vanti hann speki frá þér, einkis verður. 7. Þú hefir kosið mig til að vera Konúng þíns fólks, og dómara þinna sona og dætra. 8. Þú bauðst að byggja skyldi musteri á þínu heilaga fjalli, og altari í borg þíns bústaðar, eptirmynd þess heilaga tjalds, sem þú upphaflega hafðir látið tilbúa. 9. Hjá þér er spekin, sem þekkir þín verk, og var nálæg þá þú skópst veröldina, sem veit, hvað velþóknanlegt er þínum augum, og hvað rétt eptir þínum boðorðum. 10. Send þú hana niður frá þínum heilaga himni, og láttu hana koma frá hásæti þinnar dýrðar, að hún standi hjá mér við mín størf, og eg þekki hvað þér vel líkar! 11. Því hún veit og skilur allt: hún mun leiða mig hyggilega í mínum athøfnum, og varðveita mig með sinni dýrð. 12. Og svo verða mín verk þér þóknanleg, eg mun dæma réttvíslega þitt fólk og verðugur vera fyrir hásæti føður míns. 13. Því hvør maður þekkir Guðs ráðsáliktanir? eða hvør útgrundar hvað Drottinn vill? 14. Því dauðlegra manna áliktanir eru hvikular, og óáreiðanlegar vorar hugsanir. 15. Því sá dauðlegi líkami þýngir sálina, og sá jarðneski kofi leggur byrði á þann margt hugsandi anda. 16. Naumast ráðum vér í það sem er á jørðinni, og finnum með þraut það sem oss er í høndum, en hvør hefir uppgøtvað það sem er í himninum? 17. Hvør þekkti þínar ráðsáliktanir, ef þú gjæfir honum ekki speki, og sendir af hæðum þinn heilaga Anda? 18. Og þannig voru gøtur þeirra sem á jørðunni búa gjørðar beinar, og menn lærðu hvað þér vel líkar, og urðu sælir fyrir spekina.

## 10. Kapituli.

Vitnisburdur søgunnar um spekina.

1. Hún (spekin) vardveitti þann fyrst skapada fødur heimsins, sem einn var skapadur, og bjargadi honum frá hans yfirtrodslu, 2. og gaf honum krapt til ad drottna yfir øllu. 3. En frá henni féll sá rángláti í sinni reidi og tortíndist ásamt í bródurmords gédinu. 4. Spekin frelsadi aptur þá, sakir hans, yfirflædda jørd, sú sem stýrdi þeim réttvísa á lítilsverdu tré, um bylgjurnar. 5. Hún fann líka þann réttláta (Abraham) og vardveitti hann óstraffanlegann fyrir Gudi, þegar fólkid var trublad ordid af vondskunni, og verndadi hann styrkvann, þó hann elskadi innilega barn sitt. 6. Hún bjargadi þeim réttláta þegar þeir gudlausu fyrirfórust, ad hann umflúdi eldinn, sem féll yfir þá fimm stadi, 7. audnin þar, til vitnisburdar íllskunnar, heldur áfram ad rjúka, og plønturnar bera ávøxt sem aldrei þróast. Minnisstólpi einnar vantrúadrar, stendur salt stólpinn þar. 8. Því þared þeir forsmádu spekina, høfdu þeir ei einasta þann skada ad þekkja ekki hid góda, heldur eptirskildu þeim lifandi minnismerki sinnar fásinnu, svo þeir skyldu ei felast í sinni villu. 9. En spekin frelsadi þá sem henni þjónudu úr þrautum. 10. Hún leiddi þann réttláta, sem flúdi fyrir reidi bródur síns, á beinum vegum, sýndi honum Guds ríki og gaf honum þekkíng á heiløgum hlutum; gjørdi hann audugann af vinnu, og blessadi hans erfidi. 11. Þegar þeir ásælnu þraungvudu honum, stód hún hjá honum, og audgadi hann. 12. Hún vardveitti hann fyrir óvinum, gjørdi hann óhultann fyrir þeim sem sátu um hann, og gaf honum sigur í hørdu strídi, svo hann skyldi kannast vid, ad gudrækni er øflugri enn allt.

13. Hún yfirgaf ekki þann selda réttláta, heldur vardveitti hann frá synd. Hún fór med honum í myrkvastofuna, 14. og í bøndunum yfirgaf hún hann ekki, þángad til hún færdi honum veldisspíru Kóngsríkisins og vald yfir þeim sem hann undirþrykktu. Hún lét þá verda lygara, sem ákjærdu hann, og veitti honum eilífann ordstýr. 15. Hún leysti heilagt fólk og óstraffanlega ætt, frá þjód undirþrykkjaranna. 16. Hún kom í sál Guds þénara, og veitti óttalegum Kóngi mótstødu med undrum og teiknum. 17. Hún gaf laun þeim heiløgu fyrir þeirra þraut, leiddi þá um undarlega vegi, og var þeim vørn um daga og stjørnulogi á nóttum. 18. Hún flutti þá yfir raudahafid, og leiddi þá gégnum mikil vøtn. 19. En þeirra óvinum drekkti hún og kastadi þeim á land úr djúpt afgrunnsins (sjáfarins). 20. Því rændu réttlátir þá gudlausu og vegsømudu Drottinn, med loffsaungum þitt heilaga nafn, og hrósudu einhuga þinni styrku hønd. 21. Því spekin opnadi munn þeirra mállausu, og gjørdi túngur úngbarna málsnjallar.

## 11. Kapituli.

Sama efni.

1. Hún lét þeirra verk heppnast fyrir hønd þess heilaga spámanns. 2. Þeir fóru um óbyggda audn og settu sín tjøld á veglausum stødum. 3. Þeir stódu á móti óvinum og hefndust á fjandmønnum. 4. Þá þyrsti, og þeir ákølludu þig, (Drottinn), og þeim gafst vatn úr hrufóttum kletti, og svølun úr hørdum steini. 5. Því þad, med hvørju þeirra óvinir voru straffadir, vard þeim ad velgjørd, í þeirra skorti. 6. Í stadinn fyrir uppsprettu, þess æ fljótandi, af mordblódi gruggada vatnsfalls — 7. til straffs fyrir skipun barna mordsins — gafstu þeim óvænt ríkuglegt vatn, 8. í því þú sýndir med þorstanum þá, hvørnig þú straffadir mótstødumennina.

9. Því þá þeir urdu reyndir, en þótt ad eins nádarsamlega agadir, sáu þeir, hvørsu þeir

gudlausu í reidi hegndir verda kvaldir. 10. Því þessa hefir þú, sem fadir, áminnt og prófad, en hina fordæmt og pínt, sem hardur konúngur. 11. Og bædi þeir fjærverandi og nærverandi urdu uppá líkan hátt plágadir. 12. Því tvøføld þjáníng kom yfir þá og andvorp vid endurminníng þess umlidna. 13. Því þegar þeir heyrdu ad hinum vard þad velgjørníngur sem þeim var hegníng, urdu þeir varir vid Drottinn. 14. Því þann sem þeir ádur med forsmán høfdu afsagt, sem útborinn, hann heidrudu þeir á endanum í útgaungunni, í því þeir fengu ad kénna á ødrum þorsta, enn þeir réttlátu.

15. Fyrir þá heimskulegu þánka þeirra gudleysis, af hvørjum blekktir, þeir heidrudu skinlaus skridkvikindi og fyrirlitleg dýr, sendir þú móti þeim skinlaus dýr til straffs, 16. ad þeir skyldu kannast vid, ad med hinu sama verdur madurinn straffadur, sem hann syndgar med. 17. Ad vísu var ekki ómøgulegt þinni almáttugu hønd, sem skóp heiminn úr því ómyndada efni, ad senda her af bjarndýrum eda grimmum ljónum, 18. eda nýskøpud ólm og óþekkt villudýr, sem annadhvørt ønduðu eldgjósandi gufu, eda útspýdu þefslæmum reyk, eda sendu úr augum sér óttalega neista, 19. hvørra skadsemi hefdi ei einasta gétad afmád þá, heldur þeirra eintómt útlit, sem vakti skélfíngu, gjørt þá ad eingu. 20. En líka án þessa hefdu þeir gétad fallid fyrir einum einasta andardrætti, offóktir af hefndinni og tvístradir af andartaki þíns máttar; en þú hefir øllu nidurskipad eptir mælir, tølu og vigt. 21. Því þín mikla makt er ætíd til reidu hjá þér, og hvør gétur stadid á móti krapti þíns arms? 22. Því eins og duptid í metaskálinni er allur heimurinn fyrir þér, og sem einn morgun = daggar dropi, sem fellur á jørdina. 23. En þú miskunar øllum; því þú megnar allt, og lítur framyfir syndir mannanna svo þeir bæti sig. 24. Því þú elskar allt, sem til er, og hefir ei ýmugust á neinu sem þú gjørdir; því ef þú hatadir, svo hefdir þú ekkért skapad. 25. En hvørnig hefdi nokkud stadist, hefdir þú ekki viljad? eda hvørnig mundi hafa vidhaldist þad sem þú hafdir ei kallad (til lífs). 26. Þú hlífir øllu, því þad er þitt, Drottinn lífsins vinur!

## 12. Kapituli.

Sama efni.

1. Því þinn óforgeingilegi andi er í øllum! 2. Því straffar þú med vægd þá, sem yfirsést og med þeirra syndum áminnir þú og advarar þá, svo þeir snúi sér frá vondskunni og trúi, Drottinn, á þig. 3. Því ad sønnu hatadir þú Kananítana, þá gømlu innbúa þíns heilaga lands, 4. af því þeir ydkudu vidbjódsleg verk tøfranna og gudlausa sidi, 5. og sem miskunarlausa barna mordíngja, er héldu fórnarveitslur af manna holdi og blódi, 6. svosem innvígda til svívirdilegrar goda þjónkunar og foreldra sem myrdtu sálir (: barna sinna) er ekki gátu veitt sér bjørg, og þú vildir þá afmá fyrir hønd vorra fedra, 7. til þess ad verdug pløntun Guds barna skyldi nema þad land sem þér var dýrmætast. 8. En líka þessum, sem mønnum, hlífdir þú og sendir á undan þínum her sem fyrirrennara stíngandi flugur til þess ad þær smátt og smátt eyddu þeim.

9. Þó þér væri þad ekki ómøgulegt ad géfa þá gudlausu í bardaganum á vald enna réttlátu, eda med óttalegum dýrum eda med strángu ordi allt í einu ad afmá þá; 10. straffadir þú þó smásaman, og gafst þeim rádrúm til betrunar, enþótt þú vissir, ad þeirra uppruni var illur og vondska þeirra medfædd, og ad þeirra sinni mundi ei til eilífdar umbreytast. 11. Því frá upphafi voru þeir bølvad kyn. Samt ei ad heldur, af því þú hefir ei beig af nokkr=

um, létstu þá vera óhrædda vid það, sem þeir høfdu syndgað. 12. Því hvør má spyrja: hvað hefir þú gjørt? eda hvør mun mótþróast vid þitt dóms atkvædi? eda hvør áklaga þig fyrir þær eydilögdu þjódir, sem þú hafdir skapad? eda hvør vill framgánga móti þér sem hefnari fyrir rángláta menn? 13. Því einginn Gud er til nema þú, sem annast allt, svo þú vottir, ad þú hafir ei rángláttlega dæmt. 14. Einginn konúngur eda drottnari gétur fram fyrir þig gengid þeirra vegna sem þú hefir afmád. 15. En af því þú ert réttlátur, nidurskipar þú øllu med réttvísi, og einmidt ad fordæma þann, sem ekki vinnur til straffs, álítur þú ósamkvæmt þínu veldi. 16. Því þinn styrkleiki er ástæda réttvísinnar, og það ad þú drottnar yfir øllum, gjørir það ad verkum, ad þú vægir øllum. 17. Því þinn styrkleika sýnir þú, þá menn efast um þitt fullkomna veldi; og á þeim, sem þekkja það, straffar þú ósvífnina. 18. En þó þú sért voldugur drottnari, dæmir þú med línkind, og stýrir oss med mikilli vægd. Því, þegar þú vilt, eru øll rádin hjá þér.

19. En þú kénnir med þessum verkum þínu fólki, ad sá réttláti eigi ad vera mannvinur; og þú vekur í þínum sonum þá glødu von, ad þú unnir betrunar þeim, sem syndga. 20. Því þegar þú refsadir óvinum þinna barna og þeim dauda seku med slíkri vægd, þared þú gafst þeim tíma og rádrúm, svo þeir gjætu horfid frá vondskunni: 21. med hvørsu mikilli athygli dæmir þú (þá) þína syni, hvørra fedrum þú med eidi og sáttmála hefir géfid góð fyrirheit! 22. Þegar þú þá agar oss, straffar þú vora óvini þúsundfaldt, til þess vér munum til þinnar gjædsku, þá vér dæmum, og vonum miskunar þá vér verdum dæmdir. 23. Þar fyrir píndir þú og, med þeirra eigin svívirdíngu, þá ránglátu, sem lifdu í lífsins fásinnu. 24. Því þeir høfdu villst svo lángt á sínum villigøtum, ad þeir jafnvel héldu ad þau dýr væru gudir, sem þeirra óvinir fyrirlitu, blekktir sem óskynug børn. 25. Því sendir þú þeim refsíng, sem óskynugum børnum til athlæis. 26. En þeir sem ekki láta sig leidrétta af athlæislegri refsíngu, fá ad kénna á dómi sem Gudi er verdugur. 27. Því med þeim, af hvørjum þeir urdu ad líða mædu, med þeim sem þeir héldu gudi ad vera, med þeim sømu straffadir, sáu þeir og kønnudust vid þann sanna Gud, sem þeir ádur létust ekki þekkja. Því gékk þíngsti dómur yfir þá.

## 13. Kapítuli.

Um það, hvað afgudadýrkunin sé heimskuleg.

1. Vissulega voru allir menn blindadir í sínu edli sem ekki høfdu Guds þekkíngu, og gátu ei sjed þann, sem er, af þeim sýnilegu gjædum, og ekki þekkt meistarann, þá þeir tóku eptir verkunum, 2. heldur ætludu heiminum stýrandi Gudi, annadhvørt eldinn, eda vindinn, edur það fljóta lopt, edur stjarnanna hríng, edur það øfluga vatn, eda himinsins ljós. 3. Ef þeir, nefnil: héldu þessa hluti gudi ad vera, frá sér numdir af þeirra fegurd, þá hefdu þeir átt ad sjá, hvørsu miklu betri þeirra yfirdrottnari er, því høfundur fegurdarinnar skóp þá. 4. En ef þeir dádust ad kraptinum og dádinni, þá hefdu þeir átt ad taka eptir því, hvørsu miklu voldugri skaparinn er. 5. Því af mikilleik og fegurd þess skapada, sjest, eptir tiltølu, høfundur ens sama. 6. Samt er ekki mikid ad þessum ad finna; því líka villast þeir hæglega, sem leita Guds og vilja hann finna. 7. Því þegar þeir umgángast Guds verk og ransaka þau, verda þeir tældir af útlitinu, því fagurt er það sýnilega. 8. En ad ødruleiti eru þeir ei síknsaka. 9. Því ef þeir gátu komist svo lángt

V. 11. Óhrædda etc. adr: straffadir þú þá ekki fyrir það sem þeir etc.

í þekkíngunni, ad þeir orkudu ad útgrunda heiminn: því fundu þeir þá ei fyrri hans yfirdrottnara? 10. En vesælir eru þeir og von þeirra hvílir á því dauda, sem nefna mannanna handaverk gudi, gull og silfur, smídud bílæti, dýramyndir, eda ónýtan stein, verk fornmanna handa. 11. Eda og, ef ad trésmidur einhvør sagar medfærilegan vid í skógi, skéfur vandlega allan børkinn af, og gjørir med hagleik sínum þar úr, til lífsins þarfar, nytsamlegt búsgagn; 12. en afskurdargeira síns smídis, brúkar hann til matreidslu (til eldsneytis), og mettar sig, 13. en afgánginn hér af, til einkis hæfann, bogin vid og kvistóttan, tekur hann og snídur til, til ad starfa eitthvad í sínum tómstundum, og myndar þad kunnáttulega, og gjørir svipad manns líki, 14. edur ómerkilegu dýri, litar med menju, raudkar þess húd med farva, og strýkur yfir alla flekkina á því sama, 15. tilreidir því svo maklegan bústad, setur þad vid vegginn og festir med járnnagla. 16. Hann hefir þá sjed fyrir, ad þad detti ekki, því hann vissi vel, ad þad gat ekki bjargad sér sjálft, því þad er bílæti og þarf hjálpar. 17. Og þegar hann bidur fyrir sínar eigur, fyrir hjúskap og børn, skammast hann sín ekki, ad ávarpa bílætid. 18. Hann bidur þad veika um heilbrygdi, þad dauda um líf, grátbænir um hjálp, þad úrrædalausasta, um lukkulegt ferdalag, þad sem hvørgi gétur farid; 19. og vidvíkjandi útveg sínum og framkvæmdum og heppni handaflans, þá bidur hann þad magnlausasta ad høndum og krapti.

## 14. Kapítuli.

Sama efni.

1. Í annad sinn, þegar einhvør birjar sjóferd og ætlar sér ad fara um þær ólgandi bilgjur, ákallar hann fúnara tré, heldurenn skipid sem flytur hann; 2. því ábatagirndin hefir þad uppfundid og meistarinn, med sínum hagleik, tilbúid. 3. En þín forsjón, fadir, stýrir því, þared þú líka á hafinu leifir veg, og um bilgjurnar óhullta gøtu, 4. þú sýnir, ad þú gétir úr øllu bjargad, svo menn og án konstar fari út á hafid. 5. En þú vilt ekki ad verk þinnar speki, séu ónotud: því trúa menn því lítilsfjørlegasta tré fyrir sínu lífi, og komast af á fløkum gégnum bilgjurnar.

6. Því líka í fornøld, þegar þeir dramblátu risar fyrirfórust, slapp heimsins von undan á flaka, og eptirskildi kynstofn þinn seinna heimi, en þú stýrdir med þinni hendi. 7. En blessadur er sá vidur fyrir hvørn réttlætid skédur; 8. en þad sem gjørt er af manna høndum er bølvad, þad einmidt, og sá sem þad gjørdi: af því hann hefir gjørt þad, og hid forgeingilega var kallad Gud. 9. Því Gudi er jafn ílla vid þann gudlausa og gudleysid, 10. verkid mun med meistaranum undir eins fyrir hegníngu verda.

11. Því mun og koma hegníng yfir God þjódanna, af því þau eru ordin ad vidbjód í skøpun Guds, hneixli fyrir sálir mannanna, og snara fyrir fætur dáranna. 12. Því upphaf afgudadýrkunarinnar er uppáfinníng godanna, og uppáfinníng þeirra sømu, lífsins spillíng. 13. Því hvørki voru þau frá upphafi, ei heldur munu þau eilíf verda. 14. Því af hégómlegri grillu manna komu þau í heiminn, og því er skjótur endir þeirra áliktadur.

15. Fadir beigdur af sorg snemma æfinnar gjørdi bílæti eptir því barni sem fljótt var frá honum tekid, heidradi þá daudan mann sem Gud og eptirskildi sínum heimuglega Guds þjónustu og fórnir. 16. Sídan stadfestist med tímanum þessi gudlausi sídur, og hans var gjætt sem laga, og eptir bodi yfirdrottnara voru sem gudir heidrud útskorin bílæti. 17. Eptir þeim, sem menn gátu ei heidrad í þeirra

augsýn, af því þeir bjuggu í fjarlægd, bjuggu menn til bílæti, í fjarska, og gjørdu þekkjanlegt bílæti eptir heidrudum Kóngi, svo þeir gjætu alúdlega smjadrad fyrir þeim fjarlæga, eins og hann væri nálægur. 18. Ærugirnd meistarans, án þess menn vissu þad, hvatti og til ad auka þessa þjónkun; 19. því þessi vildi, ad líkindum, gédjast þeim volduga, og lagdi sig allan til med sinni konst ad a) hefja þad líka til fegurdar. 20. En fjøldinn, tældur af verksins snild, ætladi sá ætti ad tilbidjast sem skømmu ádur var heidradur sem madur.

21. Og þad vard lífinu tilefni til syndar, ad menn gáfu viss eiginleg nøfn steinum og tré af tilhlidrunarsemi vid óheppni edur yfirdrottnun. 22. Þannig nægdi þeim ei ad villast í Guds þekkíngunni, heldur kalla þeir svo mikla sælu þad sem raunar var ógjæfa, því þeir lifa í miklu stridi vanvitskunnar. 23. Því þá þeir annadhvørt fórnfærdu myrdtum børnum, eda tidkudu heimuglega gudaþjónustu, eda héldu óhóflegar veitslur eptir útlendum sidum, 24. vardveittu þeir hvørki hreinann hjúskap né breitni, heldur myrdir hvør annann svikssamlega, eda módgar med hjúskaparrofi. 25. Yfir øllum, án mismunar, drottnar blód og mord, þjófnadur og tál, spilling, svik, uppreisn, meinsæri, 26. ónádun gódra, vanþakklæti, saurgun sálnanna, kynvillíng, hjónabands rof, hórdómur og lausslæti. 27. Því heidrun einkisverdra goda, er upphaf alls ills, orsøk og takmark. 28. Því annadhvørt geysa þeir í kátínu, eda spá lýgi, eda lifa ránglátlega, eda sverja med lausslyndi falska eida. 29. Því þared þeir treysta líflausum godum, kvída þeir eingum skada af følskum eidum. 30. En fyrir hvørtveggja mun yfir þá koma réttvís refsíng, ad þeir af rángri ímyndan um Gud, adhylltust godin, og sóru meinsæri med svikum, forsmáandi þad heilaga. 31. Því ekki makt þeirra vid hvørja svarid er, heldur sú syndurum ákvedna hegníng, kémur ætíd yfir misgjørd þess rángláta.

## 15. Kapítuli.

Sama efni.

1. En þú, vor Gud! ert gódur og sannordur, þolinmódur og stýrir øllu med miskunsemi. 2. Því þótt vér syndgum, erum vér þó þínir, því vér þekkjum þitt veldi; en vér viljum ekki syndga, þared vér vitum ad vér erum reiknadir þér (tilheyrandi). 3. Því ad þekkja þig er fullkomid réttlæti, og ad vita af þínu veldi, er rót ódaudlegleikans.

4. Því ekki leiddi oss afvega uppáfinníng illrar manna konstar, né málarans gagnlausa verk, bílæti málad ýmsum litum, 5. hvørs sjón verdur dárum ad brixli, þá þeir fá laungun til líflausrar myndar þess dauda bílætis. 6. Vinir hins vonda eru og maklegir fyrir slíka von, svo þeir sem gjøra (bílætin), sem þeir ed hafa lyst til þeirra og heidra þau. 7. Leirpotta smidurinn hnodar med áreynslu þá mjúku jørd, og myndar hvadeina til vorrar brúkunar, en úr þeim sama leir myndar hann bædi ílát til hreinnar brúkunar og til gagnstædrar, øll á sama hátt, og hvar til sérhvørt af þeim skal brúkast, þá ákvedur leirsmidurinn; 8. og illa þraut á sig leggjandi, býr hann til einkisverdan gud úr sama leir, hann sem fyrir skømmu uppkom af jørdunni, fer þángad skjótt aptur, hvadan hann var tekinn, þegar lán sálarinnar verdur aptur af honum heimtad. 9. En hans umhugsan er ekki sú, ad hann á þraut í vændum, og ad hans líf er stutt, heldur keppist hann vid gullsmidinn og silfursteyparann, stælir eptir eirsmidnum, og heldur þad frægd, ad hann myndar tál. 10. Hans hjarta er sem

V. 19. *a.* Ad gjøra ekki ad eins bílætid líkt, heldur og fallegt.

aska, hans von rírari enn jørd (mold) og hans líf fyrirlitlegra enn leir. 11. Því hann þekkir ei þann sem hefir myndad hann, sem andadi í hann framkvæmdasamri sál og blés í hann lífsins anda. 12. En þeir reikna vort líf gaman, og lifnadinn ábatasama kaupstefnu, menn verda, segja þeir, hvadan sem helst, jafnvel af íllu, ad leita hagrædis. 13. Þvílíkur einn (bílætasmidur) veit øllum fremur, ad hann syndgar, þegar hann tilbýr brothætt kér og bílæti af jardarleir.

14. En mestu dárar eru, og vesælli enn barns sálir, óvinir þíns fólks sem þad undiroka. 15. Því øll god þjódanna halda þeir séu gudir, sem þó hvørki brúka sín augu til ad sjá, né nasir til ad draga ad sér loptid, né eyru til ad heyra, né fíngur handanna til ad þreifa, og hvørra fætur eru ónýtir til ad gánga. 16. Því madur hefir þau gjørt, og hinn sami sem hefir feingid andardráttinn til láns af ødrum, hefir þau myndad. Einginn madur gétur myndad nokkurn gud, sem sé honum (ɔ: Gudi) líkur. 17. Sjálfur daudlegur myndar hann daudt med syndugum høndum. Hann sjálfur er betri enn þad sem hann heidrar, því hann lifir, en hitt aldrei. 18. En líka eru dýrkud þau vidbjódsleguſtu dýr; því ad skinleysi eru þau eptir tiltølu lakari enn ønnur. 19. Ekki eru þau heldur frídari enn ønnur dýr, svo menn gjætu haft yndi af þeim, framar enn hinum; en þau eru og fjarlæg Guds lofi og blessan.

## 16. Kapítuli.

Dæmi af Gydínga sogu.

1. Því var þeim (Egyptsku) med slíkum dýrum maklega refsad og þeir píndir med fjølda ýmislegra kvikinda. 2. Í stad þessa straffs audsýndir þú gott þínu fólki, og tilreiddir handa því nýar vistir, nefnil. Vaktelur til fædslu, þá þad lángadi í sælgjæti, 3. svoad hina, þrátt fyrir lyst til fædslu, stuggadi vid náttúrlegri laungun vegna vidbjódslegs útlits þeirra sendu dýra, en þessir, eptir skammvinnan skort, skyldu neyta nýrra vista. 4. Því ómflýanlegur skortur hlaut ad koma yfir kúgarana, en þessum skyldi ad eins sýnt verda hvørnig þeirra óvinir voru píndir.

5. Því þegar óttalegt villudýra ædi kom líka yfir þá, og þeir lidu tjón af biti bugdóttra høggorma, var þín reidi ekki ævarandi, 6. heldur voru þeir um stuttan tíma hræddir til vidvørunar, og fengu frelsunar merki, til ad minna þá á bodord þíns løgmáls. 7. Því hvør sem snéri sér ad því, frelsadist, ei af því sem hann sá, heldur af þér, frelsari allra. 8. En med því kénndir þú vorum óvinum, ad þú [illegible], sem frelsar frá øllu illu. 9. Því þá deyd[illegible]t eingisprettanna og flugnanna, og ekkért læknismedal fanst þeirra lífi, af því þeir voru maklegir ad verda fyrir hegníng af þessum dýrum. 10. En á þínum sonum vann jafnvel ekki sú eitri spúandi dreka tønn; því þín miskunsemi kom til hjálpar og læknadi þá. 11. Því til ad minna þá á þín ord voru þeir stúngnir og skjótt læknadir, svo þeir mindu til þinna velgjørnínga, og féllu ekki í djúpa gleymsku. 12. Því hvørki jurt né plástur gjørdi þá heila, heldur þitt ord, Drottinn, sem allt læknar. 13. Því þú hefir vald yfir lífi og dauda; þú færir nidur ad hlidum undirheima, og færir þadan aptur. 14. Madurinn þarámót myrdir ad sønnu í sinni íllsku, en þann útfarna anda sækir hann ekki aptur og leysir ekki þær burtteknu sálir. 15. En ad sleppa undan þinni hendi er ómøgulegt. 16. Því hinir gudlausu, sem søgdust ekki þekkja þig, voru af mætti þíns arms húdflettir, því þeir voru ofsóktir med óvenjulegum hrídum og hagli og steypiskúrum, er ei vard undanflúid, og af eldi afmádir. 17. En þad undarlegasta var, ad eldurinn gjørdi hvad mest ad verkum

í því allt slökkvanda vatni; því heimurinn stríðir fyrir þá réttlátu. 18. Stundum að sönnu, lægði bálið sig, til þess að það skyldi ei eyða þeim dýrum, sem send voru móti þeim guðlausu, heldur skyldu sjá þau, og viðurkénna að þeim var þraungvað af Guðs refsidóm. 19. En stundum brann það mitt í vatninu ákaflegar enn eldsins makt er, svo að það afmáði gróða þess rángláta lands. 20. Þarámót fæddir þú þitt fólk með eingla fæðu, og sendir þeim brauð, tilbúið frá himni, fyrirhafnarlaust, sem veitti alla unaðsemd og var eptir allra smekk. 21. Því þínar vistir sýndu þínum börnum þinn sætleika, og í því þær þénuðu girnd þeirra, sem þær meðtóku, breyttust þær í það sem hvør vildi. 22. En snjórinn og klakinn (Manna) þoldi eldinn, og bráðnaði ekki, svo þeir könnuðust við að sá logandi eldur, sem tindraði í haglinu og hretskúrunum, fordjarfaði óvinanna ávexti, 23. en þessi sami (eldur) gleymdi aptur sínum eiginlegum krapti, til þess að þeir réttlátu fengju næríngu, 24. því þín sköpun, þjónandi þér, Skaparanum, eflir sinn krapt til hegníngar þeim ránglátu, og hættir svo, til góðs þeim sem þér treysta. 25. Því fór hún (sköpunin) þá í alla hami, og vann að þinni allt nærandi gáfu, eptir vild hinna þurftugu, 26. svo að þínir synir, sem þú, Drottinn, elskaðir, lærðu að ekki einasta gróði ávaxtanna nærir mennina heldur þitt orð, sem viðheldur þeim, sem treysta þér. 27. Því það sem eldurinn ekki eyddi, bráðnaði óðar, hitað af stuttu sólskini, 28. svo að kunnugt yrði, að menn fyrir sólar uppkomu ættu að þakka þér og áður enn birtir, tilbiðja þig. 29. Því von hins óþakkláta mun bráðna sem vetrar hrím, og renna sundur sem ónýtt vatn.

## 17. Kapítuli.

Sama efni.

1. Miklir eru þínir dómar, og torveldt að útleggja þá; því rata og ófróðð finni í villu. 2. Því þegar þeir guðlausu hugsuðu sér að undirþrikkja það heilaga fólk, láu þeir fjötraðir myrkri, og fángar lángnættis, innilæstir undir þökum, útilokaðir frá þeirri eilífu forsjón. 3. Því þá þeir ætluðu að þeir mundu felast í sínum heimuglegu syndum, undir þeirri ljóslausu skýlu gleymskunnar, tvístruðust þeir, freklega skélkaðir og hræddir af vofum. 4. Því jafnvel gat ei sá afkimi, sem fól þá, varðveitt þá fyrir hræðslu; heldur þaut í kríngum þá skélfíngar niður og trubladi þá, og ófrínilegar myndir sáust með óttalegum andlitum. 5. Eínginn eldsins kraptur gat géfið birtu, ei heldur orkuðu stjarnanna lýsandi logar því, að gjöra bjarta þá leiðu nótt. 6. Þeir sáu að eins sjálfkveiktan, óttalegan eld; og skélkaðir orðnir af þeirri sjón, sem þeir í raun réttri ei sáu, héldu þeir það sem skéð var, þeim mun verra.

7. En töfra leikspilið lagðist niður og vísinda grobbið varð háðuglega til skammar. 8. Því þeir sem lofuðu því þá, að reka ótta og skélfíngu frá sjúkum sálum, þeir urðu sjúkir af hlæilegri hræðslu. 9. Því þó eingin skélfíng gjörði þá hrædda, brá þeim við óðýranna yfirför og höggorma blístrið, 10. og fórust af hræðslu, svo þeir jafnvel skömmuðust sín að líta úti loptið, sem þó ei verður um flúið. 11. Því huglaus er sú, af egin vitnisburði fordæmda vonska, og býst ætíð við hinu versta, áreitt af meðvitundinni. 12. Því hræðsla er ekkért annað enn örvænting um liðsinni yfirvegunarinnar. 13. Því það innra búanda vonleysi álítur vandræðin meiri enn þá plágandi orsök. 14. Þeir sem hefðu þá gétað lagt sig til (venjulegs) svefns þessa kraptlausu nótt, sem komin var yfir þá úr undirheima kraptlausu afkimum, 15. voru sumir hraktir híngað og þángað af undarlegum sjónum, sumir mistu

lífid af ørvæntíngu; því sviplegur, óvæntur ótti kom yfir þá. 16. Þannig var hvør fallinn, sem hann var kominn, huglaus, eins og fángi, innilæstur í ójárnlæstu fángélsi. 17. Hvørt sem þad var jardyrkjumadur, eda hirdir, eda einn þeirra sem erfida í audninni, vard hann yfirfallinn, og hlýddi þeirri ómflýanlegu naudsyn; því med myrkursins hlekkjum voru allir bundnir. 18. Hvørt sem þad var lopts þytur, edur laggódur fugla saungur á þeim þéttu greinum, eda buldur þeirra straumhørdu vatna, 19. eda þúngar dunur nidur veltandi steina, eda støkkvandi dýra ósjed hlaup, eda grenjandi villudýra øskur, edur bergmál þeirra holu fjalla, allt hræddi þá og gjørdi þá ad eingu. 20. Ad sønnu var heimurinn af glansandi ljósum upplýstur, og í hindrunarlausum størfum fundinn; 21. en yfir þá eina útbreiddi sig sú þúnga nótt, ímynd þess myrkurs, sem eitt sinn skyldi vid þeim taka, þeir voru samt sjálfum sér myrkrinu þýngri.

## 18. Kapítuli.

Enn nú sama efni.

1. En þínir heiløgu høfdu þad mesta ljós, og hinir, sem heyrdu þeirra raust, en sáu ekki þeirra mynd, prísudu þá sæla, ad þeir lidu ekki íllt líka. 2. Og þøkkudu ad þeir ekki hefndu sín, þó þeir ádur hefdu verid módgadir, og bádu um nád, ad þeir hefdu sýnt þeim fjandskap. 3. Þarámót veittir þú þeim eldlegan stólpa sem vegvísara á þeirri óþekktu ferd, og skadlausa sól fyrir þeirra heidurlega ferdalag.

4. Vissulega høfdu hinir þad verdskuldad, ad sviftast ljósinu, og ad vera haldnir sem fángar í myrkri, því þeir høfdu haldid þínum sonum í fjøtrum, fyrir hvørra hønd þíns løgmáls óforgeingilega ljós skyldi heiminum géfast. 5. Og þared þeir tóku þad rád, ad deyda børn enna heiløgu, þegar eitt barn var útborid sem héldt lífi, svo tókst þú burt til hegníngar, fjølda af þeirra børnum, og létst þá hópum saman tínast í voldugu vatni. 6. Þessi nótt var vorum fedrum fyrirsøgd, svo þeir vissu fyrir víst, hvada eidi þeir trúdu og voru med glødu gédi. 7. Og svo vænti þitt fólk frelsis hinna réttlátu og eydileggíngar óvinanna. 8. Því ad, med því sem þú refsadir óvininum, med því enu sama gjørdir þú oss dýrdlega, oss, sem þú kalladir til þín. 9. Því í leyni færdu þau gudrækilegu velferdarinnar børn þér fórnir, og einhyga geingu undir þad gudlega løgmál, ad þeir heiløgu skyldu á líkan hátt taka hlutdeild í velgjørdum og hættum, undir eins og þeir ádur súngu lofsaung til fedranna. 10. Þarámóti hljómadi laglaust óp óvinanna, og þeirra kvein útbreiddist yfir þau hørmudu børn. 11. En med líkum dómi var þræl og herra refsad, og almúga madurinn leid þad sama sem Konúngurinn. 12. Sameiginlega høfdu þeir allir ótal dauda, sama daudddaga; því ekki hrukku þeir lifandi til ad grafa, þegar þeirra dýrmætustu nidjar urdu afmádir á svipstundu. 13. Þeir sem vegna tøfranna voru vantrúadir, hvad sem ágékk, vidurkénndu, ad fólkid væri Guds son, þá frumburdirnir dóu. 14. Því þegar djúp þøgn umkríngdi allt, og nóttin var á midri rás, 15. þá fór þitt almáttuga ord nidur af himni, frá því Konúngslega hásæti, sem voldugur strídsmadur, midt inní þad land sem tjón var ætlad, 16. berandi þitt alvarlega bod sem biturt sverd, og hann gékk ad, og uppfyllti allt med dauda, þad nam vid himin, og gékk á jørdu.

17. Þá skélfdu þá sviplega óttalegar draumsjónir og óvænt hrædsla kom yfir þá. 18. Og einn steyptist hér, annar þar hálf daudur nidur, í því hann gjørdi kunna þá orsøk, af hvørri hann dó. 19. Því þeir draumar sem

skélfdu þá, høfdu ádur bendt þeim til þess, svo þeir fyrirfórust, svo ad þeir vel vissu, hvørs vegna þeir lidu íllt.

20. Ad sønnu gjørdi daudinn líka árás á þá réttlátu, og mikid manntjón vard í eydimørkinni; en reidin varadi ekki leingi. 21. Því óstraffanlegur madur hljóp til ad strída fyrir þá; bar vopn síns embættis, bæn og reykélsi, og stód á móti reidinni, og setti plágunni takmark, til vitnisburdar um, ad hann væri þinn þénari. 22. Hann sígradi ekki grimdina med líkams krapti, ei heldur med vopna dád, heldur vann med ordi þann sem refsadi og minnti á eid og sáttmála fedranna. 23. Því þegar þeir daudu høfdu steypst hvør yfir annan hópum saman, gékk hann þar í milli, stødvadi reidina og vardi honum veg til þeirra, sem lifdu. 24. Því á hans skósída kyrtli var allur heimurinn, og fedranna heidur á þeim fjórum grøfnu steinarødum og þín dýrd á høfudbandi hans høfuds. 25. Fyrir þessu hopadi fordjarfarinn og óttadist þad; því eintómt sýnishorn reidinnar nægdi.

## 19. Kapítuli.

Sama efni.

1. En þá gudlausu yfirféll ómiskunsøm reidi allt til enda; því hann sá líka fyrirfram þeirra ókomnu verk, 2. því hann sá þeir mundu ydrast og elta þá, eptir ad þeir høfdu leyft þeim ad fara, og gjørt sér far ad því, ad koma þeim af stad. 3. Því medan þeir ennú þoldu íllt, og vid grafirnar hørmudu sína daudu, tóku þeir annad fíblskunnar áform, og ofsóktu sem stroku menn þá sem þeir høfdu útrekid og bedid ad fara. 4. Því þeirra maklegu ørløg dróu þá ad þessum enda, og létu þá gleyma því sem komid var fram vid þá, svo sú hegníng, sem vantadi á plágurnar, kjæmi algjørlega yfir þá. 5. Og svo ad þitt fólk lyki vid undarlega ferd, en þeir fyndu óvenjulegan dauda. 6. Því øll sképunin vard í sínu eiginlegu edli á ný umsképud, til þess, ad þjóna ad þínum sérdeilislegu bodum, svo þín børn óskøddud vidhéldust. 7. Menn sáu skýin skyggja á herbúdirnar, og þar sem ádur hafdi vatn stadid, sáu menn þurrlendi uppkoma, úr því rauda hafi, hindrunarlausan veg, og úr storm æstu flódi, grænt land. 8. Þar yfir fóru í einum hóp þeir, sem þín hønd hlífdi og sáu mikid undur. 9. Því eins og hross geingu þeir í haga, og stukku sem lømb, í því þeir lofudu þig, Drottinn, sem hafdir frelsad þá, 10. því þeir mundu þad enn, sem skéd var, medan þeir dvøldu (í Egyptalandi) hvørsu jørdin í stad þess, ad géta af sér (ønnur) dýr, framleiddi mý, og hvørsu áin, í stad (annara) vatnsdýra kastadi á land fjølda af froskum. 11. Seinast sáu þeir og nýa tegund af fuglum, þá þeir af laungun tilknúdir bádu um ljúfmeti. 12. Því, þeim til ánægju, komu til þeirra vaktelur úr hafinu. 13. Líka kom straff yfir syndarana, þó ekki án teikna, sem voru voldugar eldíngar; því réttilega lidu þeir fyrir sína eiginlegu vondsku; því þeir høfdu ydkad enn meira hatur vid framandi menn (enn Sódomítar). 14. Þeir hýstu ekki ókénnda þó til þeirra kjæmu, en þessir (Egyptskir) þvíngudu þá framandi, sem høfdu audsýnt þeim velgjørd, til þrældóms. 15. Og ekki ad eins þad, heldur, hvørs þeir og munu gjalda: þegar hinir tóku óvinsamlega móti framandi mønnum, 16. þá tóku þessir vid þeim med veitslum, svo sem hefdu þeir sama rétt og þeir, og plágudu þá sídan med óttalegu erfidi. 17. Þeir voru og slegnir med blindni eins og hinir úti fyrir dyrum þess réttláta, þá þeir i svarta myrkri leitudu, hvør einn ad inngángi sinna dyra. 18. Því høfudsképnurnar breittu tónum innbyrdis, eins og

tónar á hljóðfær breita taktsins tegund, en all-
tíð eru við sinn hljóm, eins og menn géta ná-
kvæmlega séð, þá þeir yfirvega atburðina. 19.
Því landdýr urðu að vatnsdýrum, og það sem
þá syndti kom á land. 20. Eldurinn var í
vatninu sterkari enn hann hefur eðli til, og
vatnið gleymdi sínum slökkvandi krapti. 21.
Þar á mót eyddi loginn ekki holdi þeirra for-
geingilegu dýra, þá þau óðu hann; ekki
bráðnaði heldur sú hrími líka himneska fæða,
sem þó hæglega bráðnar.

22. Já, á allann hátt hefir þú, Drottinn,
gjört fólk þitt dýrðlegt og heiðrað og ekki af-
rækt það, heldur hefir þú alltíð og allstaðar
hjá því staðið.

# Tobías Bók.

## 1. Kapítuli.

Guðhræðsla Tobía og mótgángur.

1. Bók søgunnar um Tobías, son Tobíels,
sem var sonur Ananíels, sonar Aðúels, sonar
Gabaels, af ætt Asíels, af kynþætti Naftali,
2. sem á døgum Enemessars, (Salmanassar),
Assýríu Kóngs, var fluttur hertekinn frá Tisbe,
sem liggur hægramegin við Kedes - Naftali í
Galíleu fyrir ofan Asor.

3. Eg Tobías gékk á sannleikans og rétt-
lætisins vegum alla daga míns lífs og veitti
margvíslega velgjørð bræðrum mínum og lands-
mønnum, sem með mér fóru til Ninive í
Assýríumanna land. 4. Og meðan eg enn nú
lifði í mínu føðurlandi, í Ísraelslandi, og var
úngur maður, hafði Naftali kynkvísl (ætt)
føður míns, fallið frá Jerúsalems húsi, sem út-
valið var af øllum Ísraels kynkvíslum, til þess
að allar kynkvíslir skyldu (þar) fórnfæra, og
musteri var helgað til bústaðar þeim æðsta
og byggt fyrir allar ættir til eilífðar. 5. Og
allar kynkvíslir, sem líka voru fráfallnar, færðu
fórnir Baals kálfi, og ætt føður míns Naf-
tali sømuleiðis. 6. En eg einn fór opt til
Jerúsalem á hátíðum, eins og øllum Ísraels
lýð er fyrirskrifað með eilífri reglugjørð, og eg
tók frumgróða og tíundir af afrakstrinum, og
þau fyrst afskornu vínber og gaf þetta prest-
unum, Aronssonum, altarinu til handa.

7. Af øllum afrakstrinum gaf eg (fyrst) tí-
und Levísonum, sem høfðu þjónustugjørðina í
Jerúsalem; og þá aðra tíund seldi eg, og fór
og eyddi henni árlega í Jerúsalem; 8. og þá
þriðju tíund gaf eg þeim sem hana áttu, eins
og Debóra bauð mér, móðir føður míns; því
munaðarlaus var eg eptirskilinn af føður mínum.

9. Og þegar eg var orðinn fulltíða maður,
tók eg mér konu af voru føðurkyni, Önnu, og
með henni átti eg Tobías. 10. Og þegar við
vorum flutt hertekin til Ninive, átu allir mínir
bræður og allir af minni ætt af heiðíngjanna
fæðu. 11. En eg varðveitti mína sál, svo eg
át ei þar af, 12. því eg mundi til Guðs af
allri sálu. 13. Og sá æðsti gaf mér gunst og
fríðleik frammi fyrir Enemessar og eg varð
hans kaupmaður. 14. Og eg fór til Medíen,

V. 13. Gunst og fríðleik, þ. e. Kónginum leitst á hann, því hann var fríður sýnum.

og fékk Gabael, bródur Gabría, í Rages, í Medíen, 10 talenta a) silfurs. 15. Og þegar Enemessar dó, vard hans son Sennakerim (Sankeríb) Kóngur í hans stad, og hans rádlag var hvikult og eg gat ekki framar komid til Medíen. 16. Og á døgum Enemessars veitti eg marga velgjørd brædrum mínum: mitt braud gaf eg þeim húngrudu, 17. og klædi þeim nøktu; og hvørn sem eg sá af mínu fólki dáin, er kastad hafdi verid út fyrir Ninive borgar vegg, jardadi eg. 18. Og þegar Kóngurinn Sennakerim drap einhvørn er kom úr Júdalandi sem flóttamadur, svo stalst eg til ad jarda hann; því hann drap marga í sinni reidi. Og Kóngur lét leita líkanna og þau fundust ekki. 19. Þá fór einhvør af þeim í Ninive, og kom þessu upp um mig hjá Kónginum, ad eg jardadi þá, og eg fól mig. En sem eg vard þess áskinja ad mín var leitad, svo eg yrdi drepinn, vard eg hræddur og strauk. 20. Þá var allt tekid frá mér, sem eg átti, og ekkért átti eg eptir nema konu mína Önnu og son minn Tobías. 21. En ekki lidu 50 dagar þángad til bádir synir hans (Sennakerims) drápu hann; og þeir flúdu í fjallid Ararat. Og Sakerdon (Assarhaddon), hans son, vard Kóngur í hans stad. Og hann setti Akiarkus, son bródur míns Anaels, yfir alla reikninga síns ríkis og yfir alla bússtjórnina. 22. Og Akiarkus bad fyrir mig, og svo kom eg aptur til Ninive. En Akiarkus var skeinkjari og innsíglisgeimari og rádsmadur og reikníngsmeistari, og Sakerdon hafdi hann næstan sér í ríkinu. En hann var bródurson minn.

## 2. Kapítuli.

Sama efni.

1. En sem eg var apturkominn í mitt hús, og Anna kona mín og Tobías sonur minn voru mér aptur gésin, þá var mér tilreidd dýr veitsla, á hvítasunnuhátídinni, sem er 7 vikna hátídin, og eg lagdist nidur ad eta. 2. Og sem eg sá þar mikinn mat, sagdi eg vid son minn: far og kom med hvørn þurfandi, sem þú gétur nokkurstadar fundid, af mínum brædrum, er muna til Drottins; og sjá, eg bíd þín. 3. Og hann kom til baka og mælti: fadir, einn af vorri ætt liggur kirktur á torginu. 4. Þá støkk eg upp, ádurenn eg hafdi nokkud smakkad, og flutti hann í hús, þángad til sól var runnin undir. 5. Svo kom eg aptur og þvodi mér og át mitt braud med sorg. 6. Og eg minntist á spádóm Amos, hvørsu hann kémst ad ordi: ydar hátídir skulu snúast í sorg og ydar gladværd í harmakvein, (Am: 8, 10) og eg grét. 7. En sem sól var geingin undir, fór eg og tók grøf og jardadi hann. 8. Og nábúar (náúngar) mínir hlóu ad mér og søgdu: hann er ekki leingur hræddur um ad hann verdi fyrir þetta drepinn; hann hlaut þó ad verda landflótta, og sjá, aptur jardar hann þá daudu!

9. En sem eg þá sømu nótt kom aptur frá greftruninni, lagdi eg mig ad sofa, af því eg var óhreinn, vid vegginn í fordyrinu, og hafdi eg þá ekkért yfir andlitinu. 10. Og eg vissi ekki ad titlíngar voru í veggnum, og í því mín augu stódu opin, dritu titlíngarnir heitu (driti) í mín augu, og hvítir flekkir komu á mín augu. Og eg gékk til læknara, en þeir hjálpudu mér ekki.

En Akiarkus veitti mér atvinnu, þángad til eg fór til Elymais. 11. Og kona mín Anna vann kvennfólks vinnu til launa, og sendi herrunum, 12. og þeir gáfu henni laun fyrir, og bættu vid geithafur. 13. En er hann kom til mín, fór hann ad jarma; og eg sagdi vid hana: hvadan er kidid? þad er þó ekki stolid? færid

V. 14. *a.* Talent, þ. e. 5 til 10 þúsund ríkisdalir.

herranum það aptur! því ekki er leyfilegt að eta stolið. 14. En hún svaraði: mér er það géfið framyfir launin. Og eg trúði henni ekki, og sagði, að hún skyldi færa herrunum það aptur, og eg varð rjóður af sneypu hennar vegna. En hún svaraði mér og sagði: hvar eru þínar góðgjørðir og góðverk? sjá, allt er opinbert sem þú býr yfir.

## 3. Kapítuli.

Sama efni. Og um Søru.

1. Þá varð eg ángurvær og grét og bað sáran og mælti: 2. réttlátur ertu, Drottinn! og øll þín verk og allir þínir vegir eru miskun og sannleiki, og sannan og réttan dóm dæmir þú eilíflega! 3. Minnstu mín og lít til mín! refsa mér ekki sakir minna synda og minna misgjørða, og sakir minna feðra (synda) sem þeir drýgðu móti þér! 4. Því óhlýðnir voru þeir þínum boðorðum, og svo ofurseldir þú oss til ráns og fángelsis og til dauða, og til háðúngarinnar orðtaks øllum heiðíngjum, meðal hvørra vér erum tvístraðir. 5. Og nú eru þínir refsidómar margir og sannir, til þess af mér að krefja (sektar) vegna minna egin og minna feðra synda, því vér høfum ekki haldið þín boðorð, og ekki gengið í sannleika fyrir þér. 6. Og gjør nú við mig eptir þinni velþóknan! bjóð þú að upptaka minn anda, svo eg leysist héðan, og verði að jørðu, því það er betra fyrir mig að deya enn lifa; því ómakleg bríxlyrði hefi eg heyrt og eg er í miklum raunum; bjóð að eg leysist úr neyðinni (og komist) til þess eilífa staðar! Snú ekki þínu augliti frá mér.

7. Á sama degi varð Sara, dóttir Raguéls í Ekbatana í Medíen, fyrir því, að hún var sømuleiðis svívirðt af þernum føður síns, 8. af því hún hafði verið géfin 7 mønnum og Asmodeus, sá vondi andi, hafði deydt þá, áður enn þeir høfðu við hana fengist sem við konur. Og þær søgðu við hana: þú ert ekki með vitinu að kirkja menn þína! Sjø hefir þú þegar fengið og ert eptir eingum þeirra nefnd! 9. Því slær þú oss? séu þeir dauðir, þá far þú með þeim! betur vér sæum aldrei son né dóttur af þér (fædda)!

10. Þegar hún heyrði þetta varð hún mjøg hrigg, svo að hún ætlaði að heingja sig. En hún hugsaði: eg er einasta dóttir føður míns; ef eg gjørði slíkt, mundi það vera honum skømm, og eg mundi leiða hans gráu hár með kvøl niður til helju. 11. Og hún bað við gluggann og mælti: lofaður sért þú Drottinn minn Guð, og vegsamað þitt heilaga og dýrðlega nafn, að eilífu! øll þín verk vegsami þig eilíflega! 12. og nú hefi eg, Drottinn! snúið mínum augum og andliti til þín. 13. Bjóð þú, að leysa mig frá jørðunni, svo eg heyri ei framar bríxlyrði! 14. Þú veitst, Drottinn! að eg em hrein af hvørri sem helst synd með manni, 15. og hefi ekki flekkað mitt nafn og ekki nafn føður míns í minni útlegð (í mínu fángelsis landi). Eg er einasta dóttir føður míns, og hann á ekkért annað barn, sem erfi hann og ekkért nákomið skildmenni; ekki er heldur til nokkur þeirra sonur, hvørjum eg gjæti geymt mig fyrir konu. Sjø hefi eg þegar mist; til hvørs er mér lífið? En ef þér þóknast ekki að deyða mig, þá bjóð, að mér sé liðsinnt og mér sé miskunað, að eg þurfi ekki framar að heyra bríxlyrði.

16. Og beggja bænir heyrðust frammi fyrir dýrð þess mikla (Guðs). 17. Og Rafael var sendur að lækna bæði tvø; að taka burt þá hvítu flekki af Tobías, og að géfa Søru, dóttur Raguéls, fyrir konu, Tobías Tobíasyni, og að fjøtra Asmodeus, þann vonda anda, þareð Tobías átti að erfa hana. Um sama tíma gékk Tobías aptur í sitt hús, og Sara dóttir Raguéls gékk niður úr sínum loptsal.

# 4. Kapítuli.

Tobías sendir son sinn til Medíen.

1. Á þeim degi minntist Tobías silfursins, sem hann hafdi feingid Gabael í Rages í Medíen. 2. Og hann sagdi vid sjálfann sig: eg óskadi mér daudans, því kalla eg ekki son minn Tobías, til ad láta hann vita þetta, ádurenn eg dey? 3. Og hann kalladi hann og mælti: barn, þegar eg er dáinn, svo jarda þú mig, og afræk ekki módur þína! haf þú hana í heidri alla daga þíns lífs, og gjørdu þad, sem henni er ad skapi og hrygg hana ekki! 4. Mundu þad, barn, ad hún þín vegna, í módurlífi þoldi margann háskaun. Þegar hún er dáin, þá jarda hana hjá mér í sømu grøf. 5. Mundu ætíd, barn, til Drottins vors Guds, og haf aldrei vilja til ad syndga og yfirtroda hans bodord. Ydka réttvísi alla daga þíns lífs, og gakk þú aldrei á ránglætisins vegum. 6. Því ef þú ydkar rádvendni, svo muntu verda lánsgéfinn í øllum þínum verkum, eins og allir sem réttlætid ydka.

7. Veittu velgjørdir naudstøddum af þínum eigum, og þitt auga sé ekki øfundsjúkt þegar þú veitir velgjørd. Snú frá eingum fátækum þínu augliti, svo mun ekki Guds auglit snúa sér frá þér. 8. Eins og þínar eigur eru miklar til, skaltu gódgjørdasemi ydka; séu þínar eigur litlar, þá vertu ei hræddur, sambodid því litla, ad géfa ølmusu! 9. því gódum sjód safnar þú þér fyrir neydarinnar tíd. 10. Því gódgjørdasemi frelsar frá daudanum og lætur mann ekki koma í myrkrid. 11. Því gódgjørdasemin er fyrir alla, sem hana ydka, þægileg fórn fyrir augliti þess ædsta.

12. Vardveittu þig, barn, fyrir øllu lauslæti, og tak konu øllu framar af ætt fedra þinna! tak einga útlenda konu, sem ekki er af ætt fødur þíns! því vér erum børn spámannanna. Nói, Abraham, Isaak, Jakob (voru) fedur vorir í fornøld — minnst þess, barn, ad þeir allir toku konur af sínum brædrum, og urdu blessadir í sínum børnum, og þeirra ætt skal landid erfa. 13. Og nú, barn, elska þína brædur, og drag þig ekki dramblátlega svo í hlé vid þína brædur og syni og dætur þíns fólks, ad þú einga konu takir þér af þeim. Því med drambsemi er tjón mikil óstadfesta, og med ónýtjúngsskap, fátækt og mikill skortur. Já, ónýtjúngsskapurinn er módir húngursins.

14. Einkis manns laun, sem unnid hefir, meiga hjá þér vera eina nótt, heldur betala honum strax. Ef ad þú þjónar Gudi, svo verdur þér þad endurgoldid. Haf gát á þér, barn, í øllum þínum gjørdum, og vertu sidsamur í allri þinni umgeingni. 15. Gjør eingum þad sem þér kémur illa. Drekk ei vín ad þú verdir drukkinn, og drykkjuskapur fylgi þér ei á þínum veigi. 16. Midla þeim húngrada af þínu braudi, og þeim nakta af þínum klædum. Brúka til gódgjørda allt sem þér verdur afgángs; og þitt auga sé ekki øfundsamt, þegar þú géfur ølmusu. 17. Sóa ríkuglega braudi vid greftrun réttlátra og géf ekki syndurum. 18. Leita ráda hjá øllum hyggnum, og forsmá ekkért nytsamlegt rád. 19. Á sérhvørjum tíma skalt þú vegsama Gud Drottinn og bidja hann, ad þinn vegur verdi greidur, og ad øll þín spor og áform heppnist, því eingin þjód hefir rád (sér í hendi) heldur géfur Drottinn oll gædi, og hvørn sem hann vill, nidurlægir hann, eins og honum sýnist. Og nú, barn, mundu mín bodord, og láttu þau ekki tínast úr þínu hjarta. 20. Og nú vísa eg þér á þá 10 talenta silfurs, sem eg fékk Gabael (bródur) Gabría í Rages í Medíen. 21. Og óttast nú ekki, barn, ad vid erum ordnir fátækir! þú átt mikid þegar þú óttast Gud, og varast allar syndir, og gjørir þad sem honum er velþóknanlegt.

## 5. Kapítuli.

Tobías fær Rafael sér til fylgdar.

1. Og Tobías svaradi og mælti: Fadir, eg skal gjøra allt sem þú hefir bodid mér. 2. En hvørnig mun eg géta fengid silfrid, þared eg þekki hann ekki? 3. Þá fékk hann honum handskrift og mælti til hans: Leita þú þér ad manni, sem fari med þér, og eg skal géfa honum kaup, medan eg lifi, og far þú nú og fá silfrid.

4. Svo fór hann ad leita ad manni, og hitti Rafael, sem var Engill. 5. En hann vissi þad ekki, og hann sagdi vid hann: gét eg farid med þér til Rages í Medíen, og ert þú kunnugur því plátsi? 6. Og Engillinn sagdi til hans, eg skal fara med þér, og er kunnugur leidum, og hefi gist hjá bródur vorum Gabael. 7. Og Tobías sagdi til hans: bíddu mín, eg ætla ad segja þetta fødur mínum. 8. Og hann sagdi til hans: far þú, en tef ekki (leingi). Og hann fór og sagdi vid fødur sinn: sjá, eg hefi fundid einhvørn, sem ætlar ad fara med mér: en hann sagdi: kalla þú hann til mín, til þess eg viti, af hvada kynkvísl hann er, og hvørt hann er áreidanlegur, til þess ad fara med þér. 9. Og svo kalladi hann hann; og hann kom inn, og þeir heilsudust. 10. Og Tobías mælti til hans: bródir! af hvørri kynkvísl og af hvørri ætt ert þú? láttu mig vita þad! 11. Og hann svaradi honum: spyr þú um kynkvísl og ætt, eda um kaupamann sem fari med syni þínum? Og Tobías mælti til hans: eg vildi, bródir! fá ad vita þína ætt og þitt nafn. 12. En hann svaradi: Eg er Asaría, sonur Ananía hins mikla, af þínum brædrum. 13. Og hann sagdi vid hann: vertu velkominn, bródir! og reidstu mér ekki, ad eg vildi vita þína kynkvísl og ætt. Þú ert þá minn bródir af þeirri sómasamlegu (fallegu) og gódu ætt; því eg lærdi ad þekkja Ananía og Jónatan, sonu Símeí hins mikla, þá vér urdum samferda til Jerúsalem, ad bidjast fyrir, og fórum þángad med frumgródann og tíund af afrakstrinum, því þeir høfdu trúblast í trúblí sinna brædra. Af gódri kynkvísl ert þú, bródir! 14. En seg mér, hvada kaup á eg ad géfa þér? Drakma (1 mark) fyrir hvørn dag, og þad sem þú og sonur minn þurfid. 15. Og eg vil bæta vid þitt kaup, ef þid komid heilir til baka. 16. Og þeim kom þetta ásamt. Og hann sagdi vid Tobías: bú þig nú til ferdar, og hafid heppilega ferd! Og sonur hans setti allt í stand til ferdarinnar. Þá sagdi fadir hans vid hann: far þú med þessum manni! en Gud sem býr í himninum géfi ydur gjæfulega ferd, og hans Engill fylgi ydur! Og svo geingu bádir út og fóru af stad; og hundur únglíngsins fór med honum.

17. En Anna, módir hans, grét, og sagdi vid Tobías: því hefur þú sendt í burt barn okkar? eda er hann ekki stafur okkar handar í sinni út- og inn-gaungu frammi fyrir okkur? 18. Bættu ekki silfri vid silfur, æ ad vid missum ekki soninn fyrir þad! 19. Því þad nægir oss sem Drottinn hefir géfid oss ad lifa af. 20. Og Tobías sagdi vid hana: haf þú einga áhyggju, systir! hann kémur heill heim aptur, og þín augu munu hann sjá; 21. því gódur Engill mun honum fylgja og ferd hans mun heppnast, og hann mun koma heilbrygdur til baka aptur. 22. Og hún hætti ad gráta.

## 6. Kapítuli.

Um ferdina og þann rara fisk.

1. En þeir, ferdamennirnir, komu um kvøld ad ánni Tígris og voru þar um nóttina. 2. Og úngi madurinn steig nidur í ána til ad lauga sig: þá støkk fiskur fram í ánni og ætladi ad gleypa únglínginn. 3. En Eingillinn sagdi vid

hann: tak þú fiskinn! og sá úngi madur greip fiskinn og fleigdi á land. 4. Og eingillinn mælti til hans: slægdu fiskinn, og taktu úr honum hjartad og lifrina og gallid og geym vandlega. 5. Og únglíngurinn gjørdi eins og eingillinn sagdi honum; en fiskinn steiktu og átu þeir. Svo héldu bádir ferdinni áfram, þar til þeir komu í nánd vid Ekbatana.

6. Og únglíngurinn sagdi vid eingilinn: bródir Asaría! til hvørs gagns er hjartad, lifurin og gallid úr fiskinum? 7. Og hann svaradi: hjartad og lifrin (er til þess) ad ef ári eda vondur andi óspekir einhvørn, svo má brenna þetta fyrir manninum eda konunni, svo reykur komi, og verda þau þá ekki framar áreitt. 8. En gallid er til þess ad strjúka því um hvíta flekki á augum og svo verdur madur sá, sem þá hafdi, heill.

9. En sem þeir voru komnir í nánd vid Rages, 10. sagdi eingillinn vid þann únga mann: bródir! í nótt skulum vid gista hjá Raguel; og hann er ættíngi þinn, og á dóttir sem heitir Sara. Eg skal tala um hana, ad hún verdi þér géfin fyrir konu. 11. Því þú átt hennar erfd, því þú ert sá eini ættíngi hennar. 12. Og stúlkan er fríd og skinsøm. Og heyr mig nú, eg skal tala vid fødur hennar, og þegar vid førum aptur frá Rages skulum vid halda brúdkaupid; því eg veit ad Raguel gétur eingum ødrum géfid hana eptir Mósis løgmáli, svo ad hann verdi ei dauda sekur, því þad er þitt ad taka arfinn fremur hvørjum ødrum manni.

13. Þá sagdi únglíngurinn vid eingilinn: bródir Asaría, eg hefi heyrt, ad þessi stúlka hafi nú þegar verid géfin 7 mønnum, og ad allir hafi farist í brúdar herberginu. 14. En nú er eg einasti sonur fødur míns, og hræddur er eg um, ad eg deyi, ef eg kém þar inn, eins og þeir fyrri, því ári einhvør elskar hana, sem eingum gjørir íllt, nema þeim, sem nærri henni koma. Og nú er eg hræddur ad eg kynni ad deya, og þá leidi eg líf fødur míns og módur minnar med sorg útaf mér nidur í grøfina; og annan son eiga þau ekki sem þau géti jardad. 15. En eingillinn sagdi vid hann: manstu nú ekki talid, þá fadir þinn baud, ad þú skyldir taka þér konu af þinni ætt? Og heyr mig nú, bródir! hún verdur konan þín, og hvad árann áhrærir, þá vertu áhyggjulaus, því á þessari nóttu verdur hún þér géfin fyrir konu. 16. Því þegar þú geingur inní brúdarherbergid, þá tak glædur og legg þar á nokkud af hjarta og lifur fisksins, og láttu koma reyk; 17. Árinn finnur af því þefinn og flýr og kémur ekki aptur til eilífdar. Þegar þú svo kémur til hennar, þá standid bædi upp, og ákallid þann miskunsama Gud, þá mun hann bjarga ykkur og miskuna; vertu óhræddur, því hún var þér ætlud frá upphafi, og þú munt frelsa hana, og hún mun med þér fara. Og eg ætla þú munir eignast børn med henni. Og sem Tobías heyrdi þetta, fékk hann ástarhuga til hennar, og hans sál hékk mjøg vid hana. Og svo kom hún til Ekbatana.

## 7. Kapítuli.

Um gistíngu Tobía.

1. Og sem hann kom ad húsi Raguels, gékk Sara móti honum og heilsadi honum, og hann henni; og hún leiddi hann inni húsid. 2. Og Raguel sagdi vid konu sína Ednu: hvørsu líkur er þessi úngi madur frænda mínum Tobías! 3. Og Raguel spurdi þá: hvadan erud þid brædur? Og þeir svørudu honum: af Naftali sonum, sem eru herteknir í Ninive. 4. Og hann sagdi til þeirra: þekkid þér bródur minn Tobías? en þeir svørudu: vid þekkjum hann. 5. Og hann sagdi vid þá: lídur honum vel? en þeir svørudu: hann lifir og honum lídur vel. Og Tobías mælti: hann er

minn fadir. 6. Þá stökk Raguel upp, og kysti
hann og grét. 7. Og hann blessadi hann og
mælti til hans: ó, þú sonur góds og ágjæts
manns! En er hann heyrdi ad Tobías hefdi
mist sjónina, vard hann sorgmæddur og grét.
8. Og Edna kona hans og Sara dóttir hans
grétu líka. Og þau tóku vel vid þeim og
slátrudu úngum hrút, og báru á bord fleiri
rétti. En Tobías sagdi vid Rafael: bródir
Asaría, tala þú um þad, sem þú minntist á, á
leidinni, og láttu þad mál útkljást. 9. Og
hann sagdi Raguel frá. Og Raguel mælti
vid Tobías: et, drekk og lát þér vel falla!
10. því þér ber ad eignast mína dóttur; 11.
þó verd eg ad segja þér sannleikann. Eg hefi
nú þegar géfid barn mitt 7 mönnum, og jafn-
snart sem þeir inngeingu til hennar, dóu þeir
sömu nóttina. En vertu nú hress og gladur.
Og Tobías mælti: eg smakka hér ekkért fyrr
enn þid lofid og látid mig fá vissu. 12. Og
Raguel mælti: hana! taktu hana þá upp
frá þessu eptir sem lög standa til! þú ert
hennar bródir, og hún er þín. En sá misk-
unsami Gud greidi sem best ykkar leid! 13.
Og hann kalladi á Söru dóttur sína, og tók
hana sér vid hönd og gaf Tobías hana fyrir
konu, og sagdi: tak hana eptir Móses lögum,
og flyt hana heim til födur þíns! og hann
blessadi þau. 14. Og hann kalladi Ednu
konu sína, tók blad, og skrifadi kaupmála bréf
og innsigladi þad hid sama. 15. Og þeir
tóku til ad matast.

16. Og Raguel kalladi á konu sína Ednu,
og sagdi vid hana: systir, tilreid annad her-
bergi og far med hana (Söru) þángad. 17.
Og hún gjördi, sem hann sagdi, og leiddi hana
þángad inn; en hún grét. Og hún þurkadi tárin
af dóttur sinni, og mælti til hennar: 18. vertu
örugg barn! Drottinn himins og jardar géfi
þér gledi fyrir þessa þína sorg! vertu örugg dóttir!

## 8. Kapítuli.

Sama efni.

1. En er þeir höfdu endad máltídina,
leiddu þeir Tobías inn til hennar. 2. En hann
mundi, þá hann gékk þángad, ord Rafaels, og
tók glædur og lagdi á hjartad og lifrina úr-fisk-
inum, og lét verda reyk. 3. En þegar árinn
fann lyktina, flúdi hann í Egyptalands efri
hluta (óbygdir) og eingillinn fjötradi hann.

4. En sem þau voru bædi innilæst, stód
Tobías upp af sænginni og mælti: stattu upp
systir, og látum okkur bidja, ad Drottinn misk-
uni okkur! 5. Og Tobías hóf svo sína bæn:
lofadur sért þú Gud vorra fedra, og vegsamad
sé þitt heilaga og dýrdlega nafn ad eilífu!
vegsami þig himnarnir og allar þínar sképnur
(öll þín sköpun)! 6. Þú skapadir Adam, og
gafst honum Evu konu hans trúa medhjálp;
af þeim er mannkynid komid. Þú sagdir:
þad er ekki gott ad madurinn sé einsamall;
vér viljum gjöra honum medhjálp, honum sam-
bodna. 7. Og nú, Drottinn! tek eg þessa
mína systur, ekki sakir munadar, heldur med
einlægni; lát mig því finna nád og med henni
ná háum aldri! 8. og hún sagdi med hon-
um: Amen! 9. Og þau bædi sváfu af
nóttina.

10. En Raguel stód upp og fór og gróf
gröf og mælti: ætli þessi deyi ekki líka? 11.
Og sem Raguel kom aptur í sitt hús, 12.
mælti hann til Ednu konu sinnar: sendu eina
af stúlkum þínum og látum oss sjá, hvört hann
lifir; ef ei, þá skulum vér jarda hann, svo eing-
inn fái ad vita þad. 13. Þá lauk stúlkan upp
dyrunum og fann bædi sofandi. 14. Og hún
gékk aptur út og sagdi þeim ad hann væri
lifandi.

15. Þá lofadi Raguel Gud og mælti: veg-
samadur sért þú, Gud, med hvörri sem helst
hreinni og heilagri lofgjörd! þig vegsami þín-

ir heiløgu og allar þínar skèpnur og allir þínir einglar og þínir útvødu. Þeir lofi þig eilíflega! 16. Lofadur sért þú, ad þú gledur mig, og þad hefir ei mætt mér sem eg óttadist, heldur hefir þú gjørt vid oss eptir þinni mikilli miskunsemi. 17. Lofadur sért þú, ad þú hefir miskunad þig yfir þessi twø einu børn (foreldra sinna) audsýn þeim, Drottinn, (framveigis) miskun, lát þau í heilbrigdi enda sitt líf med gledi og nád!

18. En hann skipadi hjúum sínum ad fylla aptur grøfina. 19. Og hann hélt þeim brúdkaup í 14 daga. 20. Og Ragúel mælti til hans ádurenn brúdkaupsdagarnir voru úti, og lagdi eid vid, ad hann skyldi ei fara fyrrenn þeir 14 brúdkaupsdagar væru á enda, 21. og þá skyldi hann fá helftina af sínum fjármunum og fara í fridi til fødur síns; og hid annad, þegar eg er dáin og kona mín.

## 9. Kapítuli.

*Tobías sendir til Rages.*

1. Og Tobías kalladi Rafael og mælti til hans: 2. bródir Asaría! tak med þér þræl og tvo úlfalda, og far til Rages í Medíen ad finna Gabael, og sæk fyrir mig silfrid og kom med hann sjálfan til míns brúdkaups; 3. því Ragúel hefir svarid, ad eg skuli ekki fara; 4. og fadir minn telur dagana, og sé eg leingi í burtu, verdur hann mjøg sorgmæddur. 5. Þá fór Rafael, og kom til Gabael og fékk honum handskriftina. En hinn kom med sjódana innsiglada og afhendti honum. 6. Og bádir voru þeir jafnsnemma á fótum, og komu til brullaupsins. Og Tobías blessadi konu sína.

## 10. Kapítuli.

*Tobías fer heim.*

1. En Tobías fadir hans taldi hvørn dag; og þá ferdadagarnir voru lidnir, og hann kom ekki, 2. mælti hann: ætla þeir hafi farid erindisleysu? edur kannské Gabael sé dáinn, og einginn greidi honum silfrid? 3. og hann vard mjøg sorgbitinn. 4. Og kona hans sagdi vid hann: barnid er farid; hann er svo leingi í burtu. Og hún fór ad gráta hann og mælti: 5. skyldi eg, barn, ekki gráta ad eg lét þig frá mér, þú ljós minna augna? 6. Og Tobías sagdi vid hana: þeigi þú (hættu), haf þú eingann harm, hann er heill á hófi. 7. Og hún svaradi honum: þeigi þú, tæl mig ekki! mitt barn er farid; og hún gékk daglega á þá leid, sem hann hafdi farid. Á daginn át hún ekkért, og á næturnar hætti hún ekki ad gráta son sinn Tobías, þángad til þeir 14 brúdkaupsdagar voru lidnir, sem Ragúel hafdi svarid, ad hann skyldi þar útenda.

En Tobías mælti til Ragúel: 8. leyf mér nú ad fara, því fadir minn og módir mín búast ekki framar vid ad sjá mig aptur! 9. En teingdafadirinn sagdi vid hann: vertu hjá mér; eg skal senda til fødur þíns, svo hann fái ad vita hvørnig á stendur fyrir þér. 10. En Tobías svaradi: láttu mig fara til fødur míns! Þá stód Ragúel upp, og gaf honum konu hans Søru og helftina af sínum eigum, þræla og fénad og silfur. 11. Og hann lét þau frá sér og bad þeim góds, og mælti: himinsins Gud blessi ykkur, mín børn, ádurenn eg dey! 12. Og vid dóttur sína sagdi hann: haf þú þína teingdaforeldra í heidri. Þau eru nú þínir foreldrar. Eg vildi eg feingi gott af þér ad frétta! Og hann kysti hana. Og Edna sagdi vid Tobías: elskulegi bródir! Drottinn himinsins flytji þig aptur til baka, og géfi mér ad eg fái ad sjá þín børn med Søru dóttur minni, svo ad eg gledji mig fyrir Drottins augliti! og sjá, eg trúi þér fyrir dóttur minni, sem panti, grættu hana ekki!

## 11. Kapítuli.

Tobías kémur heim; fadir hans fær lækníngu.

1. Eptir þetta fór Tobías af stad, og lof-
adi Gud, ad hann hafdi látid hans ferd heppn-
ast, og kvaddi Ragúel og Ednu konu hans.
Og hann héldt áfram ferdinni þángad til þau
komu í nánd vid Ninive. 2. Þá mælti Ra-
fael til Tobías: veitstu ekki bródir, hvørnig
þú fórst frá fødur þínum? 3. Látum oss fara
á undan konu þinni og tilreida húsid. 4. En
hafdu fiskgallid med þér. Og svo héldu
þeir áfram, og hundurinn rann med þeim
á eptir. 5. Og Anna sat einmidt þar, og
leit fram á veginn eptir syni sínum. 6. Og
hún kom auga á hann, þar sem hann kom, og
sagdi vid fødur hans: sjá, sonur minn kémur
og madurinn sem med honum fór! 7. Og
Rafael mælti: eg veit ad fadir þinn lýkur upp
augunum. 8. Þá skaltu rída gallinu á hans
augu, og hann mun nugga þau þegar þad
bítur hann, og afstrjúka þá hvítu flekki, og sjá
þig. 9. Og Anna hljóp á móti syni sínum
og féll honum um háls og mælti til hans: eg
hefi sjed þig, barn, nú vil eg deya! Og þau
grétu bædi. 10. Og Tobías kom til dyra,
og rak sig á. En sonur hans hljóp ad hon-
um, 11. og greip til fødur síns og reid gall-
inu á hans augu og mælti: vert þú med ør-
uggu gédi, fadir! 12. En er þad beit, nugg-
adi hann augun. 13. Og þeir hvítu flekkir
flisjudust af hans augum. Og hann sá sinn
son, og féll honum um háls, 14. og grét og
mælti: lofadur sért þú, Gud, og vegsamad þitt
nafn ad eilífu, og lofadir séu allir þínir hei-
lagir Englar! 15. Því þú hefir mig agad, en
(líka) miskunad mér. Sjá, eg sje minn son
Tobías!

Og hans son gékk næsta gladur inní húsid,
og sagdi fødur sínum frá því mikla, sem vid
hann hafdi framkomid í Medíen. 16. Og
Tobías gékk á móti teingdadóttur sinni, fullur
fagnadar og lofadi Gud, allt ad Ninive borg-
arhlidi. Og þeir, sem sáu hann gánga, furd-
udu sig, ad hann gat sjed. 17. Og Tobías
vidurkéndi fyrir þeim, ad Gud hefdi sér misk-
unad. Og þá Tobías nálægdist Søru teingda-
dóttur sína, blessadi hann hana og mælti:
vertu velkomin mín dóttir! lofadur sé Gud
sem leidir þig til vor og blessadur sé fadir
þinn og módir þín! Og gledi var hjá øllum
brædrunum í Ninive. 18. Og þar komu Akí-
arkus og Nasbas, hans bródurson. 19. Og
brúdkaup Tobía stód med miklum fagnadi í
7 daga.

## 12. Kapítuli.

Rafael eingill fer burt.

1. Og Tobías kalladi son sinn Tobías og
mælti til hans: hugsadu barn til launa fyrir
manninn sem med þér fór, og þad er tilhlýdi-
legt ad bæta vid hann. 2. Og hann svaradi:
fadir! mér er skadlaust ad géfa honum helft-
ina af øllu sem eg kom med; 3. því hann hef-
ir fært þér mig heilbrigdan aptur og læknad
konu mína og sókt mitt silfur og líka læknad
þig. 4. Og sá gamli mælti: þad á hann
skilid.

5. Og hann kalladi eingilinn og sagdi vid
hann: tak þú helfíngin af øllu sem eg kom
med og far í fridi! 6. Þá kalladi hann þá
báda afsídis og mælti til þeirra: lofid og veg-
samid Gud og géfid honum heidurinn, og þakk-
id honum fyrir þad sem hann hefir vid ydur
gjørt í áheyrn allra sem lifa. Þad er gott
ad vegsama Gud og vidfrægja hans nafn, í
því menn kunngjøra hans verk med heidrun.
Látid þá ei dragast ad þakka honum! 7. Þad
er vel gjørt ad þegja um leyndarmál konúngsins;
en menn eiga med hrósi ad opinbera Guds
verk. Gjør gott, þá mun þig ekkért illt hitta!

8. Það góða er: bæn með føstu, góðgjørðasemi og réttvísi. Betra er að eiga lítið með réttvísi, heldurenn mikið með ránglæti. Betra er að veita velgjørðir, en leggja gull í sjóð. 9. Því góðgjørðasemi frelsar frá dauðanum, og hreinsar af allri synd. Hvør sem ydkar góðgjørðasemi og réttvísi verður blessaður með lánglífi. 10. En syndarar eru óvinir síns eigin lífs. 11. Eg vil eingu ydur leyna; eg sagði: að það væri vel gjørt að þeigja um leyndarmál konúngs, en guðs verk ættu menn að opinbera með hrósi. 12. Og nú, þegar þú baðst, um sama bil sem Sara teingdadóttir þín, bar eg endurminníng a) ydar bæna fyrir auglit þess heilaga; og þegar þú grófst þá dauðu, var eg sømuleiðis hjá þér. 13. Og þegar þú létst þér ekki þúngt þykja að standa upp, og yfirgafst máltíðina til að fara og jarða þann dauða, þá varstu, með þínum góðverkum, mér ekki hulin, heldur var eg með þér. 14. Og nú sendi Guð mig til að lækna þig, og þína teingdadóttur Søru. 15. Eg er Rafael, einn af þeim 7 heiløgu einglum sem flytja bænir heilagra, og framgánga fyrir dýrð þess heilaga. 16. Þá urðu þeir báðir mjøg hræddir og féllu niður á sín andlit, því þeir óttuðust. 17. En hann sagði til þeirra: óttist ekki, friður sé með ydur! en vegsamið Guð eilíflega! 18. Því eg kom ekki af eigin gunst, heldur eptir boði vors Guðs. Vegsamið hann því eilíflega! 19. Alla dagana hefi eg ydur birtst, og hefi hvørki etið né drukkið, heldur hafið þér séð sýn. 20. Og þakkið nú Guði, því nú fer eg upp aptur til hans sem mig sendi; og skrifið allt, sem skéð er, í eina bók. 21. Og sem þeir stóðu upp, sáu þeir hann ekki meir. 22. Og þeir þøkkuðu hans miklu og furðanlegu verk, að Drottins eingill hafði birtst þeim.

## 13. Kapítuli.

Þakklætis bæn Tobía.

1. Og Tobías skrifaði bæn til þakkargjørðar svolátandi:

Lofaður sé Guð, sem lifir eilíflega, og hans ríki! 2. því hann agar og miskunar; leiðir niður til helju og leiðir upp þaðan, og einginn getur sloppið undan hans hendi. 3. Þakkið honum Israelssynir í augsýn þjóðanna! því hann dreifði oss meðal þeirra. 4. Kunngjørið þar hans mikilleika, vegsamið hann fyrir øllum sem lifa! því hann er vor Drottinn og Guð vorra feðra að eilífu. 5. Hann mun refsa oss fyrir vort ránglæti, þó aumkvast yfir oss aptur, og saman heimta frá øllum þjóðum, hvørt sem helst ydur hefir nokkru sinni dreift verið meðal þeirra. 6. Ef þér snúið ydur til hans af øllu ydar hjarta og allri ydar sálu, til þess að ydka ráðvendni fyrir hans augsýn, þá mun hann snúa sér til ydar, og ekki byrgja sitt auglit fyrir ydur. Og skoðið þá hvað hann vill við ydur gjøra og þakkið honum með hárri røddu, og lofið Drottinn réttlætisins, og víðfrægið konúng eilífðarinnar! Eg þakka honum í landi minnar herteknúngar og kunngjøri hans veldi og mikilleik syndaranna þjóð. Snúið ydur, þér syndarar, og stundið réttvísi fyrir hans augliti! hvørr veit nema hann verði ydur velviljaður, og auðsýni ydur miskun? 7. Minn Guð vil eg víðfrægja, og mín sál (segja lof) himinsins konúngi, og fagna yfir hans mikilleika. 8. Allir í Jerúsalem segi og þakki honum: Jerúsalem! borg hinna heiløgu, hann mun þig aga fyrir verk þinna sona, þó aptur miskuna sonum hinna réttlátu. 9. Þakka þú Drottni vandlega og vegsama konúng eilífðarinnar, svo hans tjaldbúð verði aptur í þér bygð með føgnuði, og að hann í þér

V. 12. a. Endurminníng: aðr: reykoffur, máské eptir mismunandi orði í Grískunni á þessum stað.

gledji þá herteknu, og elski aumíngjana í þér í ollum ættlidum aldarinnar, (um allar aldir eilífdarinnar).

10. Margar þjódir munu lángt ad koma, til nafnsins Guds vors Drottins, med gáfur í sínum høndum, gáfur handa himinsins Konúngi. Þeir seinustu ættlidir helga þér lofsaung. 11. Bølvadir eru allir sem þig hata; blessadir allir sem þig elska, ad eilífu. 12. Gled þig og fagna yfir sonum enna réttlátu! því þeir munu samansafnast og vegsama Drottinn þeirra réttlátu. 13. Sælir eru þeir, sem þig elska, þeir munu gledja sig vid þinn frid! sælir eru þeir sem létu sér gánga til hjarta allar þínar hirtíngar; því þeir munu af þér føgnud hafa, þegar þeir sjá alla þína dýrd, og munu gladværir vera eilíflega.

14. Mín sála lofi Gud, þann mikla Konúng! 15. Því Jerúsalem mun bygd verda af Safír og Smaragd og dýrum steinum, þínir múrar og þínir turnar og skansar af skíru gulli. 16. Jerúsalems stræti munu løgd verda med Beryll og Karbunkel, og med steinum frá Ofír. 17. Og allar hennar gøtur munu halelúja og lofgjørd fram mæla, segjandi: lofadur sé Gud, sem þig upphóf, um allar aldir!

## 14. Kapítuli.

*Nidurlagid um Tobía, flutníng frá Niníve.*

1. Og Tobías endadi sinn lofsaung. 2. En hann var 58ta ára, þegar hann missti sjónina, og eptir 8ta ár fékk hann hana aptur, og hann ydkadi gódgjørdasemi, og hélt áfram ad óttast Gud Drottinn, og þakka honum. 3. Og hann vard madur gamall. Þá kalladi hann son sinn og hans syni, og mælti til hans: barn, tak þína syni! sjá, eg er ordinn gamall og nálgast mitt andlát. 4. Far til Medien, barn! því eg trúi því sem Jónas spámadur hefir talad um Niníve, ad hún muni verda eydiløgd, en í Medíen mun meiri fridur vera um sinn; líka ad vorum brædrum í landinu muni verda tvístrad úr því góda landi, og Jerúsalem verda audn, og Guds hús þar uppbrent, og þar audn vera ad vissum tíma. 5. Og aptur mun Drottinn miskuna þeim, og flytja þá inn í landid; og þeir munu byggja húsid, en ekki eins og þad fyrra, þángad til (tídir) aldarinnar fullkomnast. Og þar eptir munu þeir heim aptur koma úr útlegdinni og uppbyggja Jerúsalem dýrdlega. Og Guds hús mun þar inni ágjætlega byggt verda, eins og spámennirnir hafa talad hér um. 6. Og allar þjódir munu einlæglega snúast til ad óttast Gud Drottinn, og grafa sín goda bílæti. 7. Og allar þjódir munu Drottinn vegsama, og Guds fólk honum þakka. Og Drottinn mun hefja sitt fólk, og allir munu fagna, sem elska Gud Drottinn, í sannleika og réttlæti, og sýna gódsemi vorum brædrum.

8. Og far nú, son minn, burt úr Niníve, því vissulega mun þad framkoma sem Jónas spámadur hefir talad. 9. En vardveit þú løgmálid og bodordin, og vertu miskunsamur og réttvís, svo þér vel vegni! 10. Og jarda mig sómasamlega, og módur þína hjá mér, og vertu þá ekki leingur í Niníve. Mundu, barn, hvad Aman gjørdi vid fóstra sinn Akiarkus, hvørsu hann leiddi hann úr ljósinu í myrkrid, og hvørsu hann launadi honum. Ad sønnu frelsadist Akiarkus; en hinn fékk sín laun og steyptist í myrkrid. Manasse ydkadi gódgjørdasemi, og frelsadist úr daudans snøru sem fyrir hann var løgd. En Aman féll í snøruna og fyrirfórst. 11. Og sjáid nú, børn, hvad gódgjørdasemin orkar, og hvørnig réttlætid frelsar. Og sem hann mælti þetta, andadist hann í rúminu; en hann var 158ta ára gamall. Og þeir jørdudu hann sómasamlega.

12. Og þegar Anna dó, jardadi hann hana
hjá fødur sínum.
En Tobías fór med konu sinni og
sonum sínum til Ragúels í Ekbatana teingda
fødur síns, og eldtist heidurlega. 13. Og
hann jardadi sína teingda foreldra med allri
sæmd, og erfdi alla þeirra fjármuni, auk fød-
ursíns Tobía. 14. Og hann dó 127 ára
gamall í Ekbatana, í Medíen. 15. Og hann
frétti, ádur enn hann dó, ad Nínive var eydi-
løgd, Nebúkadnesar og Assverus unnu hana, og
hann gladdist yfir Nínive, ádur enn hann dó.

# Jesú Síraks Bók.

## Formálinn.

Þared oss er svo margt og merkilegt meddeilt í løgmálinu af spámønnunum og þeim sem í þeirra spor geingu, sakir hvørs Israelsfólki má hrósa fyrir sinn lærdóm og vitsku; og þared sannsýnilegt er ad ekki einasta lesendurnir frædist, heldur og ad námsmennirnir géti ordid ad gagni þeim sem þar fyrir utan ern, med tali og skrifinu; var afi minn, sem leingi hafdi ydkad lestur løgmálsins og spámannanna og annara fødurlandsins rita, og aflad sér þarí mikils ferdugleiks, tilknúdur ad skrásetja eitthvad sjálfur midandi til mentunar og visdóms, svo ad námfúsir menn, er og svo læsu slíkt, gjætu því heldur, tekid framførum í því, ad lifa samkvæmt løgmálinu.

Þar fyrir bid eg ydur, ad þér med gódvild og alúd komid og lesid, og virdid til vorkunar, þó svo sýnist, sem vér sumstadar ekki høfum nád krapti margra orda, hvørsu mikla alúd sem vér høfum haft vid þá vér unnum ad þéssari útleggingu. Því ekki hefur þad Hebreska ord, þegar því er snúid á adrar túngur, sama krapt, sem í Hebreskunni; og ekki einasta þessar (greinir) heldur og sjálft løgmálid og rit spámannanna. Og hínar adrar bækur sýna ei lítinn mismun þá þær eru lesnar fyrir sig (í sínu uppruna máli).

Þegar eg kom, á 38da ári til Egyptalands undir ríkisstjórn Evergetes Kóngs, og stadnæmdist (þar), fann eg ei lítils lærdóms eptirmynd (sýnis horn). Eg héldt þad því mjøg naudsynlegt ad brúka til þess kapp og alúd ad snúa þessari bók. Já, á því tímabili lagdi eg á mig mikid erfidi og hafdi vid mikla alúd, til ad ljúka vid þessa bók, og koma henni út, líka handa þeim, sem utanlands vilja frædast og sína sidi laga, til þess ad lifa eptir løgmálinu.

## 1. Kapítuli.

Speki og gudhrædsla.

1. Øll speki er frá Herranum, og hún
er hjá honum eilíflega. 2. Hvør hefir talid
sandkorn sjáfarins, dropa regnsins, daga ei-
lífdarinnar? 3. Hvør hefir ransakad hæd
himinsins, breidd jardarinnar, dýpt hafsins,
og spekina? 4. Spekin var skøpud allra fyrst,
og skinsamleg þekkíng er frá eilífd. 5. Upp-
spretta spekinnar er ord Guds hins ædsta, og
hennar vegir eru eilíft bodord. 6. Hvør hef-
ir feingid ad sjá spekinnar rót? og hvør þekkti
hennar rádagjørdir? 7. Einn er spakur, mjøg
óttalegur, 8. Drottinn, sem í sínu hásæti situr.
9. Hann skóp hana, sá hana, kunngjørdi hana,

10. og hellti henni yfir øll sín verk, og allt hold, eptir sinni gjøf, og meddeildi hana þeim, sem hann elska. 11. Otti Drottins er heidur og hrós og unan og fagnadar kóróna. 12. Otti Drottins gledur hjartad, veitir gladværd og føgnud og lánglífi. 13. Hvør sem óttast Drottinn, honum mun seinast (ad sídustu) vel vegna, og á dauda degi sínum mun hann náð finna. 14. Elska til Drottins er sú dýrdlegasta speki, 15. og þeir sem hana sjá, þeir elska hana, því þeir taka eptir og kannast vid hennar dýrd. 16. Otti Drottins er upphaf vitskunnar, og þeim gódu er hún medskøpud í módurlífi, hjá mønnum tók hún sér eilífa bólfestu, og hjá þeirra kyni er henni trúad til ad vera. 17. Otti Drottins er gudrækileg þekkíng. 18. Gudræknin vardveitir og réttlætir hjartad, géfur føgnud og unan. 19. Hvør sem óttast Drottinn, honum mun vel vegna, og á andláts deginum mun hann blessadur vera.

20. Ad óttast Drottinn er sadníng vitskunnar, hún gjørir menn drukkna med sínum ávøxtum. 21. Hún fyllir allt sitt hús dýrum gjædum og fordabúrin med sínum ávøxtum. 22. Otti Drottins er kóróna vitskunnar. 23. Hún lætur frid og heilbrigdi blómstra. 24. Hún lætur útstreyma skynsemd og hyggilega þekkíngu, og upplyptir frægd þeirra sem vid hana fast halda. 25. Vitskunnar rót er ad óttast Drottinn, og hennar greinir eru lánglífi. 26. Otti Drottins fjærlægir synd; 27. en sá sem ekki hefir (hann) ótta gétur ei réttlátur ordid. Reidi hins gudlausa gétur ei réttlætst, því ákéfd hans reidi verdur honum orsøk til falls. 28. Allt ad ákvednum tíma þolir sá lítilláti, og seinast umbunar honum føgnudurinn. 29. Til þess rétta tíma geymir hann sitt tal; 30. en varir hinna gódu munu hrósa hans hyggindum. 31. Í fjársjódum vitskunnar eru hyggileg snillirdi; en gudrækni er syndaranum vidbjódur.

32. Hafir þú laungun til vitsku, svo haldtu bodordin, og Drottinn mun veita þér hana. 33. Því vitska og mentan er ótti Drottins, og hann hefir velþóknan á trausti og hógværd. 34. Mistreyst ekki ótta Drottins, og nálæg þig honum ei med tvískiptu hjarta. 35. Hræsna ei fyrir mønnum, og haf gát á þínum vørum. 36. Hreyk þér ei sjálfum upp, ad þú ei fallir og bakir þér vanvirdu. 37. Því Drottinn mun opinbera þínar heimuglegar hugsanir og þér niburdrep gjøra midt í søfnudinum. 38. Af því þú héldst þig ei ad Guds óttanum, og þitt hjarta var fullt af falsi.

## 2. Kapítuli.

Sama efni.

1. Barn! Ef þú vilt þjóna Gudi, Herranum, þá bú þína sál út til freistni (strids). 2. Stýr þínu hjarta og vertu fastur, og lát þér ei hugfallast þegar hún (freistnin) kémur. 3. Hald þig ad honum, og vík ei frá honum, svo þú seinast verdir mikill. 4. Þigg þú, hvad sem þér er úthlutad, og vertu þolinmódur í tilbreitni mótgángsins, (allskonar mótgángi). 5. Því í eldi er gullid prófad, og þeir menn sem Gudi eru þókknanlegir í ofni þjáninganna. 6. Treystu honum, svo mun hann taka þig ad sér. Stýr þinni leid, og vona á hann.

7. Þér sem óttist Drottinn, væntid hans nádar, og hopid ekki, svo þér ei fallid! 8. Þér sem óttist Drottinn, treystid honum, svo koma launin. 9. Þér sem óttist Drottinn, væntid góds, eilífs fagnadar og nádar. 10. Rennid auga til þeirra fyrri kynslóda og sjáid! 11. Hvør treysti Drottni og vard til skammar? 12. Eda hvør var stadfastur í hans ótta, og vard yfirgéfinn? eda hvør kalladi til hans, svo haun sinnti honum ekki? 13.

Því nádugur og miskunsamur er Drottinn, og fyrirgéfur syndir, og hjálpar á neydarinnar tíd.

14. Vei hugdeigum hjørtum, magnlausum høndum og þeim syndara sem á tveim vegum geingur! 15. Vei magnlausu hjarta! af því þad hefir ei traust, fær þad ekki vørn. 16. Vei ydur sem missid þolgjædi! 17. Hvar til ætlid þér ad grípa, þegar Herrann heimsækir? 18. Þeir sem óttast Drottinn, mistreysta ei hans ordum, og þeir sem hann elska, varðveita hans vegu. 19. Þeir, sem óttast Drottinn, leita hans velþóknunar, 20. og þeir sem hann elska, eru fullir af hans løgmáli. 21. Þeir sem óttast Drottinn, gjøra sín hjørtu reidubúin (til mótlætis), og audmýkja fyrir honum sínar sálir. 22. „Látum oss falla í Drottins hønd, og ekki í hendur mannanna"! 23. Því eins og hann er mikill, svo er hann og miskunsamur.

## 3. Kapítuli.

Ymislegar lífs reglur og áminníngar.

1. Heyrid mig, børn, ydar fødur, 2. og hagid ydur svo ad ydur vel vegni! 3. Drottinn hefir hafid fødurinn yfir børnin, og sett yfir synina módurinnar dóm. 4. Hvør sem heidrar fødur sinn, mun forlíka fyrir sínar syndir, 5. og hvørr sem heidrar sína módur, er eins og sá sem safnar sér féssjód. 6. Hvør sem heidrar sinn fødur, mun af sínum børnum føgnud hafa, og þá hann bidur, mun finna bænheyrslu. 7. Hvør sem sinn fødur heidrar, mun leingi lifa, og hvør sem Drottni er hlýdinn, hann mun gledja sína módur. 8. Hvør sem óttast Drottinn, heidrar sinn fødur, og þjónar sínum foreldrum sem yfirbodum. 9. Heidra fødur þinn í ordi og verki, 10. svo hans blessan yfir þig komi. 11. Því fødursins blessan festir hús barnanna, en módurinnar bølvan rífur þau nidur í grunn. 12. Leita eingrar sæmdar í ósæmd fødursins, því eingin frægd er þér hans ósæmd. 13. Heidur fødursins er sæmd mannsins, og vanvirdt módur er barnanna ósæmd. 14. Barn, annast þinn fødur í hans elli, og hrigg hann ekki, svo leingi sem hann lifir. 15. Haldt honum til góda þó hann bernsklegur verdi, og fyrirlít hann ekki þótt þú hafir meiri krapt. 16. Því gódsemi þín vid fødur þinn mun ei gleymast, og í stad synda straffs mun þér velgeingni veitast. 17. Á neydarinnar degi mun þín minnst verda; eins og klaki í hlívidri, svo munu þínar syndir brádna. 18. Sem Gudlastari er sá, sem yfirgéfur fødur sinn, og bølvadur af Drottni, sá sem skapraunar módur sinni.

19. Barn, vertu med hógværd vid þína vinnu, svo muntu elskad verda af gédþekkum manni. 20. Þess meiri þú ert, þess meir skaltu þig audmýkja, svo muntu finna nád hjá Drottni. 21. Því mikil er Drottins makt, og af þeim audmjúku vegsamast hún. 22. Leita ei þess sem þér er of erfidt, og grenslast ei eptir því sem yfirgeingur þína krapta. 23. Hugsa um þad, sem þér er bodid; því þér er ei naudsynlegt þad, sem þér er hulid. 24. Þad sem þinni sýslan ei vidkémur, því skaltu ei hnýsast eptir, né vidfást. 25. Því þér er vísad á meir enn manns skilníngur orkar (adkémst). 26. Því marga tældi sú háa innbirlíng um þá sjálfa, og illur þótti lét þeirra vit rasa, hafir þú ekkért auga, svo þarftu ekki ljós; hafir þú eingann skilníng, svo kunngjør þad ekki (med þínu tali). 27. Sá, sem háskann elskar, kémst í hann, 28. og fyrir ofdjørfum fer illa seinast. 29. Hardt hjarta hledur á sig erfidleika, og syndarinn hledur synd á synd ofan. 30. Vid afdrifum þess drambláta á ekkért læknismedal, því stofn vondskunnar hefir

í honum djúpar rætur. 31. Hugur hins skinuga yfirvegar vitskunnar snillyrdi (Parabole), 32. og athyglisamt eyra er ósk hins vísa. 33. Vatn sløkkur logandi eld, og gódgjørdasemi forlíkar fyrir syndir. 34. Sá sem miskunsemi umbunar, minnist þess sídar meir, og á óhappa tímanum mun slíkur madur finna lidsemd.

## 4. Kapítuli.

Fleiri lífsreglur.

1. Barn! synja ei þeim fátæka um bjørg, og lát þurfandi augu ekki leingi mæna! 2. Græt ekki húngrada sál og skaprauna ekki manni í hans vandrædum. 3. Angra þú ekki enn meir ángrad hjarta, og drag ei undan ad géfa þeim naudstadda. 4. Vísadu ekki frá, þeim sem bidur í sínni neyd, og snú ei þínu augliti frá þeim snauda. 5. Snú ei þínu auga frá þeim naudstadda, géf eingum tilefni til ad bidja þér óbæna. 6. Því ef hann bidur þér ílls í sínni hjarta sorg, svo mun Skaparinn heyra hans bæn.

7. Gjør þig elskadann hjá søfnudinum, og hneig þitt høfud fyrir þeim voldugu. 8. Hneig þitt eyra til þess snauda, og svara honum vinsamlega med hógværd. 9. Losa þann undirþrykkta úr hendi þess sem undirþrykkir, og vertu ekki lítilsígldur þegar þú dæmir. 10. Vertu munadarlausum sem fadir, og módur þeirra í manns stad. 11. Svo muntu vera sem sonur ens ædsta, og hann mun elska þig meir enn módir þín.

12. Spekin upphefur til sín sína syni og tekur vid þeim sem hennar leita. 13. Hvør sem hana elskar, sá elskar lífid, og þeir sem fara á fætur til hennar snemma, verda med føgnudi mettadir. 14. Hvør sem heldur sig fast ad henni, mun fá heidur; og hvørt sem hún kémur, þar mun Herrann veita blessan. 15. Þeir sem henni þjóna, þeir þjóna þeim heilaga og Drottinn elskar þá sem hana elska. 16. Hvør sem henni hlýdir mun þjódirnar dæma, og hvør sem heldur sig til hennar, mun búa óhulltur. 17. Ef þú trúir henni fyrir þér, muntu fá hana til eignar og þínir nidjar munu erfa hana. 18. Hún leidir hann (manninn) í upphafi krókótta gøtu, 19. og leidir yfir hann hrædslu og hugleysi og plágar hann med sínum aga, þángad til hún trúir hans sálu og hefir prófad hann í sínum løgum. 20. En þá snýr hún til hans aptur á sléttum vegi og gledur hann, 21. og opinberar honum sína leyndardóma. 22. Ef hann villist í burt, svo yfirgéfur hún hann, og lætur hann detta eins og hann vill.

23. Gjæt þess rétta tíma; og varast hid vonda, 24. og skammast þín ekki fyrir þína sál. 25. Því sneypa er til, sem leidir til syndar, og líka géfst sneypa til heidurs og nádar. 26. Gjør þér eingann manna mun til skada þinni sálu, og óttast eingann þér til tjóns. 27. Haldtu ei talinu til baka, þá tími er til ad bjarga, 28. og fel ekki þinn vísdóm þér til ágjætis. 29. Því fyrir talid verdur vitskan kunnug, og lærdómur fyrir túngunnar ord. 30. Tala ekki móti sannleikanum og fyrirverd þig sakir þess þig skortir lærdóm. 31. Skammast þín ekki ad játa þínar syndir, og streitstu ekki móti straum. 32. Géf þig ei undir dárana, og líttu ei á persónu maktarmannsins. 33. Berstu fyrir sannleikann fram í daudann, svo mun Gud Drottinn fyrir þig strída. 34. Vertu ekki ofskjótur med túngunni, en tregur og liddulegur í þínum verkum. 35. Vertu ekki sem ljón í þínu húsi, og gjør ei mædu þínum heimamønnum med þínum grillum. 36. Þín hønd sé ei framrétt til móttøku, og læst þá géfa skal aptur.

## 5. Kapítuli.

Enn nú lífsreglur.

1. Reid þig ekki á þinn aud, og seg ekki:

eg hefi nóg. 2. Fylg ekki þinni tilhneigíngu og krapti til þess ad gánga eptir girnd þíns hjarta. 3. Og seg ekki: hvør vill umvanda vid mig? Því Drottinn mun þér vissulega refsa. 4. Seg ekki: eg syndgadi og hvad sjer á mér? því Drottinn hefir mikid lánglundargéd. 5. Vertu ekki ugglaus ad hrúga synd á synd ofan, sökum fyrirgéfníngar. 6. Og seg ekki: hans miskunsemi er mikil, hann mun fyrirgéfa mér syndafjøldann. 7. Því hjá honum er nád og reidi, og hans grimd vakir yfir syndinni. 8. Undandrag ekki ad snúa þér til Drottins, og skjót því ei á frest dag frá degi. 9. Því hastarlega kémur Drottins reidi og á hefndarinnar tíma muntu fyrirfarast. 10. Reid þig ekki á rángfengid fé, því þad mun ei stoda þig á ørlaga deginum.

11. Vidra þú ekki vid allann vind, og gakk ekki á hvørjum vegi: svo (gjørir) sá tvítyngdi syndari. 12. Vertu fastur í þinni sannfæríngu og eitt sé þitt tal. 13. Vertu fljótur til ad heyra, og svara þú med yfirvegan. 14. Hafir þú skinbragd, þá svara þínum náúnga; en ef ekki, þá legg hønd þér á munn. 15. Heidur og skømm er í talinu, og mannsins túnga verdur honum opt ad falli. 16. Lát ei kalla þig rógbera og offæk eingann med þinni túngu. 17. Því þjófurinn mun fá skømm og sá tvítyngdi slæmann áfellisdóm. 18. Gjør ekkért, hvørki stórt né smátt, gálauslega.

## 6. Kapítuli.

Sama efni.

1. Hafir þú verid vinur, þá skaltu ei gjørast óvinur; því íllt mannord, spott og skømm verdur hlutdeild slíkra manna, eins og þess tvítyngda. 2. Upphef þig ekki í áformi þinnar sálar, svo ad þín sál ekki verdi sundurtætt, eins og manneigt naut. 3. Þín blød verdi af (þér) nøgud, þínir ávextir skémdir, og frá þér verdi geingid sem þurru tré. 4. Vond sál eydileggur sinn eiganda, og gjørir hann ad athlæi sinna óvina.

5. Blídlegt ávarp fjølgar vinum, og velhljómandi túnga a) fjølgar vinsamlegum ávørpum. 6. Margir hafi frid vid þig, en einn af þúsund sé þinn rádanautur. 7. Eignistu vin, þá skaltu eignast hann í reynslu, og trúdu honum ekki fljótt. 8. Því margur er vinur þegar honum hagar, og verdur ei trúr á degi þinnar neydar. 9. Margur vinur verdur óvinur og uppljóstar um þig þínum svívirdu bardaga. 10. Margur vinur býdur þér gjarnan til bords med sér, en verdur ei trúr þegar þér áliggur. 11. Í eigum þínum (vasar b) hann sem þú, og vid þína heimamenn er hann djarfmæltur. 12. Gángi þér illa, svo er hann ámóti þér, og felur sig fyrir þínu augliti. 13. Vertu fjærlægur þínum óvinum, og varadu þig líka á þínum vinum. 14. Trúr vinur er ørugg vørn; og hvør sem hann finnur, sá hefir fundid sjód. 15. Trúr vinur er ómetanlegur, eingin vog tekur hans verd. 16. Trúr vinur er læknismedal lífsins, og þeir, sem óttast Drottinn, finna hann. 17. Sá sem óttast Drottinn leidir sinn vin, því eins og hann er, svo mun og sá annar (vera).

18. Elska, barn, uppfrædíngu frá æsku aldri, svo muntu finna vitsku til elli ára; 19. eins og sá, sem plægir og sáir, svo haldtu þér til hennar, og búst vid hennar ávøxtum. 20. Stuttan tíma muntu mæda þig, med því ad vinna ad henni, en fljótt muntu njóta hennar ávaxta. 21. Erfid er hún þeim ónámfúsa, og sá fávísi eirir ei hjá henni. 22. Eins og mikill prófsteinn leggst hún á hann, og hann frestar ei leingi ad snara henni frá sér. 23. Því vitskan er eins og nafn hennar er, og fáum

V. 5. *a.* Eiginl. sætur barki. V. 11. *b.* Eiginl. er hann.

verdur hún opinberud. 24. Heyr, barn, og medtak mína tilsøgn, og burtskúfa ekki mínu rádi! 25. Láttu þína fætur í hennar fjøtra og þinn háls í hennar hálsband. 26. Frambjód þínar herdar og ber hana, og haf eingan ímugust á hennar bøndum. 27. Nálægdu þig henni af øllu hjarta, og vardveittu hennar vegu af øllum þínum mætti. 28. Grenslastu eptir henni, og leita hennar, þá mun hún verda þér kunnug; og eignist þú hana, þá láttu hana ekki frá þér; 29. því ad lyktum muntu endurnæríngu af henni hafa, og hún mun snúast þér í føgnud. 30. Hennar fjøtrar verda þér ad sterkri vørn og hennar hálsband ad dýrdlegu skarti. 31. Því hún ber gullskart, og hennar bønd eru ofin úr bláu silki. 32. Þú munt klædast henni sem dýrri skikkju, og setja þér á høfud fagnadar kórónu. 33. Viljir þú, barn, svo verdur þú mentad, og gésir þú þína sál, (vitskunni) fær þú hyggindi. 34. Ef þú girnist ad heyra, muntu medtaka (hana), og leggir þú vid eyrun, svo verdur þú hygginn.

35. Kom þú á samkomur enna gømlu, og haldt þig til hvørs manns sem er vitur. 36. Heyr þú gjarnan hvad eitt tal um gudlegt efni, og láttu ei hjá þér skjótast snilliyrdi vitskunnar. 37. Hvar sem þú sjer skinsamann mann, þá heimsæk hann snemma, og þinn fótur gángi opt um hans dyra stiga. 38. Hugsa um Drottins bodord, og mundu ætíd til hans skipana. Hann mun festa þitt hjarta, og þín laungun eptir vitsku, mun þér veitast.

## 7. Kapítuli.

Fleiri lífsreglur.

1. Gjør ekkért íllt, svo hittir þig ekkért íllt. 2. Hafdu þig lángt frá ránglæti, svo mun þad fordast þig. 3. (Minn) son, sá ekki (akur) ránglætisins, svo muntu þad ei sjøfaldt uppskéra.

4. Leita þú ekki valds af herranum né tignarsætis af konúnginum. 5. Hrósa þér ekki fyrir herranum af þinni réttvísi, ekki heldur fyrir kónginum af þinni vitsku. 6. Sæktu ekki eptir ad vera dómari, (þad gjæti skéd þú orkadir ekki ad uppræta ránglætid) svo ad þú ekki fælist álit hinna voldugu, og leidir í háska þína rádvendni. 7. Syndga ekki móti stadarfólkinu, og láttu ekki skrílinn draga þig med sér. 8. Hlad ekki tvívegis á þig synd, því fyrir eina verdur þú ekki óhegndur. 9. Hugsa þú ekki: (Gud), hann mun líta á þínar mørgu fórnargáfur, og þegar eg færi þær Gudi enum ædsta, mun hann vid mér taka (nádarsamlega). 10. Vertu ekki huglaus þegar þú bidur, 11. og forsóma ekki ad gésa ølmusu.

12. Hæd þú eingan mann í hans hjartasorg; því sá er einn til sem niđurlægir og upphefur. 13. Sá eingum lygum móti þínum bródur, og gjør ekkért þesshàttar vini þínum. 14. Aldrei skaltu temja þér nokkra lýgi, því sá ávani leidir ei til góds. 15. Vertu ekki málugur á samkomu hinna øldrudu, og tak ekki upp sømu ordin í þinni bæn. 16. Hata þú ekki ørdugt erfidi, né akuryrkju tilsetta af enum ædsta. 17. Tel þig ekki med syndaranna fjølda. 18. Hugsa til þess, ad reidin tefur ekki. 19. Audmýk þig af hjarta; því hegníng þess gudlausa er eldur og ormur. 20. Sel ekki vin fyrir fánýtt fé, ekki heldur ekta bródur fyrir Ofírs gull. 21. Skil þig ei vid skynsama og gudrækna konu, því hún er elskulegri enn gull. 22. Far þú ei illa med þjóninn, sem erfidar dyggilega, ei heldur þann daglaunamann sem géfur (þér) sína sál. 23. Skinsamann þjón skaltu elska af hjarta, svipt hann ekki frelsi. 24. Hafir þú kvikfé, svo vakta þú þad, og hafir þú gagn af því, svo farga því ekki. 25. Egir þú børn, svo menta (aga) þau, og beig þeirra háls í æskunni. 26. Egir þú dætur, svo

vardveit þeirra líkama, og vertu ekki hirleitur
til þeirra. 27. Giptu dóttur þína, svo hefir
þú gjört mikid verk, og géf hana skinsömum
manni. 28. Hafir þú konu eptir þínu hjarta,
svo útskúfa henni ekki: (en adhyllstu aldrei þá
hatursleg u). 29. Heidra fødur þinn af øllu
hjarta og gleym ekki fædíngar hrídum þinnar
módur. 30. Minnst þess, ad þú ert af þeim
gétinn, og hvørnig viltu umbuna þeim þad sem
þau hafa þér gjørt? 31. Ottast þú Drottinn
og heidra hans presta. Elska þinn skapara af
øllum mætti og yfirgéf ekki hans þjónustumenn.
32. Ottastu Drottinn og heidra prestana, 33.
og géf þeim sína hlutdeild eins og þér er bodid.
34. frumgróda og sekta fórn, 35. bóggáfuna,
helgidómsins fórn, og hid fyrsta af því helg-
ada. 36. Rétt þeim fátæka þína hønd svo þín
blessun verdi fullkomin. 37. Gáfa kémur sér
vel hjá øllum sem lifa; en haldtu ei heldur þinni
gódsemi frá þeim daudu. 38. Drag þig ei í
hlé vid þann sem grætur, og syrg med þeim
sem syrgja. 39. Lát þér ei leidt ad vitja sjúkra;
því fyrir þad muntu verda elskadur. 40. Í
øllu þínu tali þá hugsa til þíns endirs, svo muntu
ekki syndga ad eilífu.

## 8. Kapítuli.

1. Stríd ekki vid þann volduga mann, svo
þú fallir ekki í hans hendur. 2. Deil ekki vid
ríkann mann, svo hann verdi þér ekki ofþúng-
ur. 3. Því gullid tælir marga, og þad beig-
ir hjørtu Kónganna. 4. Prátta ekki vid mál-
skapsmanninn, og ber ei vid ad hans eldi.
5. Haf ekki gledskap vid ósidadann mann, ad
þínir forfedur verdi ei óvirdtir. 6. Bregd þeim
ei um sína synd sem sig bætt hefir; mundu
þad ad vér allir erum sekir. 7. Gjør ei gis
ad manninum í hans elli, því vér eldumst líka.
8. Fagna ei yfir nokkurs manns dauda; mun
til þess, ad vér allir hljótum ad deya. 9.
Afræk ei tal hinna vísu, og dvel vid þeirra
snillyrdi. 10. Því af þeim gétur þú skilníng
fengid, og (sjed) hvørsu høfdíngjunum á ad
þjóna. 11. Fjærlæg þig ekki frásøgum enna
gømlu; því þeir lærdu líka af þínum fedrum.
12. Því af þeim gétur þú lært hyggindi, og
hvørsu madur á ad svara, þegar áliggur. 13.
Blás ekki enn meir ad syndarans kolum, svo
þú ekki brennir í báli hans elds. 14. Stattu
ei upp fyrir andliti þess lastmálga, ad hann
setjist ei í launsátur um þinn munn. 15. Lána
þú eingum manni sem er voldugri enn þú; en
álít þad, sem þú hefir lánad honum, glatad.
16. Gakk ekki í borgun þér um megn, og haf-
ir þú geingid í borgun, svo hugsadu til ad
borga. 17. Far ekki í mál vid dómara; því
eptir hans áliti munu menn honum (í vil) úr-
skurd á leggja. 18. Vertu ekki á ferd med
fífldjørfum manni, svo hann verdi þér ekki
háskalegur; því eptir sinni vild mun hann
breita, og vegna hans óvits, muntu med hon-
um rata í ógjæfu. 19. Þú skalt ekki strída
vid reidigjarnan mann, og ferdast ekki med
honum um óbygdir; því blód er sem ekkért í
hans augum, og þar sem eingin hjálp er, leggur
hann þig ad velli. 20. Rádfærdu þig ekki
vid heimskíngjann; því hann gétur um ekkért
þagad. 21. Gjør ekkért heimuglegt í nærveru
framandi manns; því þú veitst ekki hvørju
hann gétur af stad komid. 22. Opna ei þitt
hjarta hvørjum manni, hann kannské þakki þér ekki
fyrir þad.

## 9. Kapítuli.

1. Vertu ekki vandlætíngasamur vid kon-
una (sem er) vid þitt brjóst, og kénn (henni)
ekki illa ment þér á móti. 2. Géf ekki konu
þinni þína sál, svo ad hún hefji sig yfir þitt
vald. 3. Gakk ekki á móti þeirri tælandi konu,

V. 28. Þad sem er hér innan ( ) vantar í Grískuna.

svo þú fallir ekki í hennar snøru. 4. Hafdu einga umgeingni vid saungkonuna, svo þú verdir ei fánginn af hennar brøgdum. 5. Skodadu ekki meyuna, svo þú verdir ekki lokkadur af hennar yndisleglleika. 6. Géf ei sálu þína skjækjum í vald, svo þú missir ekki þinn arf. 7. Skyma ei um allt á gøtum stadarins, og ráfa ei um hans fábyggdu pláts. 8. Snú þínum augum frá frídum konum, og skoda ekki annarlegan frídleika. 9. Af konu frídleik voru margir leiddir á villu stiga, og af honum kviknar ástin sem eldur. 10. Set þig ekki hjá giptri konu, og leggst ekki í hennar fadm, 11. og haf ekki samdrykkju med henni, ad hjarta þitt ekki hneygist til hennar, og þú med þínum anda steypist í óhamíngju. 12. Yfirgéf ekki gamlan vin, því hinn nýi er ekki hans jafnoki. 13. Nýtt vín, sá nýi vinur: þegar þad verdur gamalt, drekkur þú þad med unadsemd. 14. Øfunda ekki syndarann af hans dýrd, því þú veitst ei hvør hans afdrif verda. 15. Lát þér ei gédjast þad sem ógudlegum gédjast: hugleid, ad þeir verda ei óhegndir allt til helju. 16. Haf þig lángt frá þeim manni, sem hefir vald til ad deyda, og þá muntu ekki kénna á daudans hræðslu. 17. En ef þú nálgast hann, þá lát þér ei yfirsjást, svo hann taki ekki af þér lífid. 18. Hugleid, ad þú geingur innanum tálsnørur, og á borga tindum. 19. Lær þú vandlega ad þekkja þinn náúnga, og rádfær þig vid vitra menn, og tala vid þá skynsømu, og allt þitt tal vidvíki løgmáli ens ædsta. 20. Rádvandir menn séu þínir bordgéstir, og leita þíns hróss í ótta Drottins. 21. Verkid fær hrós fyrir smidanna hendur, og vitur madur, sá sem lýdum rædur, fyrir sitt tal. 22. Málugur madur er óttalegur í sinni borg, og sá sem er ógjætinn í tali verdur hatadur.

## 10. Kapítuli.

1. Hygginn stjórnari sidar sinn lýd, og stjórn ens skinsama er vel til hagad. 2. Eins og yfirdrottnari fólksins (er), svo eru hans þjónar, og eins og borgar høfdínginn, svo eru allir hennar innbúar. 3. Óskinsamur Kóngur tortýnir sínum lýd; en borgin mun verda bygd fyrir hyggni þeirra voldugu. 4. Í Drottins hendi er landsins yfirdrottnan, og á réttum tíma lætur hann gagnlegan (mann) til valda komast. 5. Í Drottins hendi er mannsins gjæfa, og á andlit hins skriftlærda setur hann hans sæmd.

6. Reidstu ei þínum náúnga fyrir hvørja eina mótgjørd, og vinn ekkért (í þóttans verkum), dramblátlega. 7. Gud og menn hata drambsemi, og móti hvørutveggju adhefst hún rángindi. 8. Yfirdrottnan fer frá þjód til þjódar sokum ránglætis ofmetnadar og ágirndar. 9. Hvad hrokar sér moldin og askan? (10. Eingin er ránglátari enn sá ágjarni, hann hefur eigin sálu fala), hans innisli burtkastast medan hann ennú lifir. 11. Læknirinn gjørir gis ad laungum óhraustleika; 12. og Kóngur í dag og á morgun deyr hann. 13. Því þegar madurinn er daudur, fær hann í arf skridkvikindi, villudýr og orma.

14. Þad er undirrót dramblætisins ad mannsins hjarta fellur frá Drottni, og hans hjarta víkur frá Skaparanum. 15. Því upphaf drambsins er synd, og hvør sem þar vid festist, útfleytir vidurstygdum. 16. Því sendir Drottinn óvenjuleg ókjør og kollkastar þeim seinast. 17. Drottinn steypir hásætum stjórnenda, og setur hógværa í þeirra stad. 18. Drottinn kippti þjódunum upp med rótum og plantadi audmjúka í þeirra stad. 19. Drottinn hefir umturnad þjódanna løndum, og skémt

V. 10. Þad sem er innan ( ) vantar í sumstadar.

þau allt ad grundvelli jardar. 20. Hann lét sum visna, og sálgadi þeim, og afmádi þeirra endurminníng af jørdunni. 21. Ekki er drambsemi manninum medskøpud, né grimdarreidi þeim af kvinnunni fæddu. (22. Ekki er madurinn vondur skapadur).

23. Hvørt kyn er heidursverdt? mannkynid. Hvørt kyn er heidursverdt? þeir sem óttast Drottinn. Hvada kyn er foraktanlegt? mannkynid. Hvada kyn er foraktanlegt? þeir sem yfirtroda (Guds) bodord. 24. Medal sinna brædra er høfdínginn heidradur: eins þeir sem óttast Drottinn, í hans augum. 25. Þess ríka, þess vegsamlega, og þess snauda hrós er ótti Drottins. 26. Þad er ekki rétt ad fyrirlíta skynsaman fátækling; og þad sæmir ekki ad heidra syndarann. 27. Landshøfdínginn, dómarinn og sá voldugi eru í heidri; en engin þessara er meiri enn sá sem óttast Drottinn. 28. Vitrum þjón verda hinir frjálsu ad þjóna, og skinsamur madur møglar ei yfir því. 29. Gégndu ekki verki þínu med sérvitsku, og vertu ekki drambsamur í báginduuum. 30. Betri er sá sem vinnur og hefir nægtir af øllu, heldurenn sá sem drambar, og þolir bjargarskort. 31. Mitt barn, heidra þig sjálfan med hógværd, og géf þér heidur eptir þínum makleglelkum. 32. Hvør mun réttlæta þann sem syndgar móti sjálfum sér? og hvør mun heidra þann, sem gjørir sjálfum sér vanvirdu? 33. Fátækur madur verdur heidradur fyrir sín hyggindi og ríkur fyrir sinn aud. 34. En sá sem verdur heidradur í fátækt, hvørsu miklu framar, væri hann ríkur: og sá sem er fyrirlitinn í sinni audleg, hvørsu miklu framar í fátækt.

## 11. Kapítuli.

1. Spekin upplyptir høfdi hins lítilmótlega og lætur hann sá sæti medal høfdíngjanna. 2. Hrósa eingum manni fyrir hans frídleika og fyrirlít eingann sakir hans útlits. 3. Lítil er býflugan medal þeirra fleygu (skepna), og sá fyrsti sætleiki er hennar ávøxtur. 4. Stær þig ekki af þínum klædum, og hreyk þér ekki á heidursins degi, því undarleg eru Drottins verk, og hulin eru Drottins verk med mønnum. 5. Margir drottnendur hlutu á jørd ad sitja, og sá bar kórónu sem síst vardi. 6. Margir voldugir þoldu mikla vanvirdu, og vegsamlegir menn komust í annara hendur. 7. Lasta þú ekki fyrri enn þú hefur ransakad, prófa fyrst, refsa svo. 8. Svaradu ekki fyrr enn þú heyrir, og taladu ekki frammí annara tal. 9. Stríd ekki vegna þess máls, sem þér kémur ekki vid, og sit ekki dóm med syndurum. 10. Barn, sýsladu ekki vid margt, ef þú audgar þig, þá verdur þú ekki saklaus; og þó þú eltir þad (ɔ: audinn), svo nærdu því ekki, og þó þú flýir, kémst þú ekki undan. 11. Margur erfidar og þreytir sig og hefir alla vidleitni, og verdur því meiri skort ad þola. 12. Annar er seinn á sér og þarf lidsinnis, og hefir skort á krøptum, en nægt af fátækt; 13. og augu Drottins líta á hann til góds, og hann rikkir honum upp úr hans audvirdilegleika, og upphefur hans høfud, svo margir furda sig á honum. 14. Hamíngja og óhamíngja, líf og daudi, fátækt og audur kémur frá Drottni. 15. Drottins gjøf eiga þeir gudræknu vísa, 16. og hans velþóknan veitir ævarandi heill. 17. Margur verdur ríkur fyrir sína nákvæmni og nídsku, 18. og þad verdur hans umbun, 19. svo hann gétur sagt: Eg hefi fundid ró, og nú vil eg njóta minna gjæda. En hann veit ei hvad þess er lángt ad bída, ad hann verdur ad láta þetta laust vid annann og deya.

20. Stattu fastur í þínum sáttmála og idka

22. v. skal ei finnast í Grikkunni.

þig í honum, og vertu ætíd vid þín störf. 21. Dástu ekki ad verkum syndarans, treystu Drottni, og vertu stödugur vid þitt verk. 22. Því audveldt er í Drottins augum ad gjöra sá-tæklínginn ríkan skjótt og óvænt. 23. Drottins blessan er umbun þeirra gudræknu, og á stuttum tíma lætur hann sína blessan blómgast; 24. seg ekki: hvörs þarf eg? og hvör verdur mín gjæfa í frá þessu! 25. seg ekki, eg hefi nóg, og hvad íllt gétur mér hér eptir tilviljad? 26. Á gjæfu dögunum hugsa menn ekki til ógjæfunnar, og á ógjæfu dögunum muna menn ekki til gjæfunnar. 27. Því audveldt er Drottni ad endurgjalda mönnum á dauda deginum eptir þeirra breitni. 28. Ein vond stund lætur manninn gleyma sællífinu, og þegar madurinn deyr, koma hans verk í ljós. 29. Seg eingann sælann fyrir sitt andlát, og madurinn þekkist af sínum börnum.

30. Leid ekki hvörn mann í þitt hús, því margir eru hnikkir svikarans. 31. Eins og ginníngarfuglinn í fuglabúrinu, svo er hjarta þess drambsama og sem umsátursmadur bídur hann (þíns) falls. 32. Því þad góda rángfærir hann med limsku til ílls, og á þad ágjætasta klínir hann hrodablettum. 33. Ur einum eldneista verdur mikid bál, og syndarinn sítur um blód. 34. Vara þú þig á skálkinum, því hann smídar íllt, ad hann ekki komi á þig eilífum skammarbletti. 35. Takir þú á móti framandi manni, svo mun hann gjöra þér ónædi og ófrid, og gjöra þig ókunnugan þínum.

## 12. Kapítuli.

1. Ef þú gjörir gott svo sjá til hvörjum þú gjörir þad, þá muntu fá þökk fyrir þínar velgjördir. 2. Gjör gudræknum gott, svo muntu fá umbun, og ef ekki af honum, þá af þeim ædsta. 3. Þeim vegnar ekki vel sem temur sér íllt, og einga velgjörd lætur í té. 4. Géf þú þeim gudræknu, en tak ekki ad þér syndarann. 5. Gjör þú audmjúkum gott, en géf ekkért þeim gudlausa. Haldtu fyrir honum braudinu, og géf honum ekkért, svo hann ei med því undirþrikki þig. 6. Því íllt fær þú tvímælt fyrir allt þad gott sem þú audsýnir honum. Því einnig sá ædsti hatar syndarann, og mun refsa þeim gudlausa. 7. Géf þeim góda en lidsinntu ekki syndaranum. Þegar vel geingur verdur vinurinn ekki prófadur; en þegar illa geingur leynist óvinurinn ekki. 8. Þegar manninum vegnar vel, liggur illa á hans óvinum, og í hans óhamíngju segir vinurinn skilid vid hann. 9. Trú þú aldrei þínum óvin; 10. Því eins og járnid ridgar, svo (kémur aptur og aptur í ljós) hans vondska. 11. Og þó hann audmýki sig, og gángi hálfboginn, svo haf athuga og vara þig á honum; og vertu vid hann sem sá er speigil fágar, og þú skalt sjá, ad hann er ei ætíd ridugur. 12. Láttu hann ei vera þér til hlidar, til þess hann hrindi þér ekki frá og gángi á þinn stad. Settu hann þér ekki til hægri handar, svo hann sækist ei eptir þínu sæti, og þú á endanum finnir mín ord sönn, og hugsir a) til minnar vidvörunar med ángri. 13. Hvör vorkénnir særíngamanninum sem bitin verdur af höggormi, og öllum þeim sem hafa mök vid villudýr? 14. Eins ekki þeim, sem hefir mök vid syndarann og bendlar sig vid hans syndir; um stund mun hann med þér vera, en ef þú veiklast á fótum, svo stendst hann þad ekki. 15. Óvinurinn hefir sæt ord á sínum vörum, og í hjarta sínu leitar hann ráds ad hrinda þér í grifjuna. Honum vöknar um augun, 16. og sjái hann sér færi, gétur hann ekki af blódi saddur ordid. 17. Mæti þér óhapp, svo er hann þar fremstur í flokki, 18. og eins og hann vilji hjálpa þér, hann mun ná undan þér fót-

V. 12. *a*. Eiginl. síngist satir minnar vidvörunar.

um. 19. Hann hristir høfudid, klappar lófum saman, tautar mikid og setur andlitid í stellíngar.

## 13. Kapituli.

Fleiri sannmæli.

1. Hvør sem teknr á biki, óhreinkar sig, og sá, sem umgeingst þann dramblata verdur honum líkur. 2. Legg ei á þig þá byrdi, sem þér er ofþúng; og umgakkst ekki þann, sem er voldugri og ríkari enn þú. 3. Hvad skal (leir) pottur í samfélag vid (eir) kétil? Hann slæst vid hinn, og brotnar. 4. Sá ríki adhefst ráng-indi, og bætir hótunar ordum þar ofaná; sá fátæki þolir rángindi, og bidur þaradauki. 5. Medan þú ert nýtur (til einhvørs) brúkar hann þig; en lídir þú skort, svo yfirgéfur hann þig. 6. Ef þú hefir eitthvad, lifir hann med þér, og féflettir þig, og kjærir sig ekki um þad. 7. Hann þarf þín og tælir þig, og hlær uppá þig, og géfur þér von; hann talar fagurt vid þig, og segir: hvad vanhagar þig um? 8. Hann sneypir þig med sínum géstabodum, þángad til hann tvisvar eda þrisvar hefur féflett þig, og seinast gjørir hann gis ad þér. 9. Þegar hann sídan sjer þig, fordast hann þig, og hristir yfir þér høfudid. 10. Gjæt þín, ad þú verdir ekki táldreginn, 11. og audvirdist sakir þíns gladlyndis.

12. Kalli sá voldugi þig, þá færstu undan; því heldur mun hann kalla þig til sín. 13. Trana þér ekki fram, svo þér verdi ekki hrundid til baka, og stattu ekki of fjærri, svo þú gleymist ekki. 14. Tala þú ekki vid hann, sem vid þinn líka, og reiddu þig ekki á hans mørgu ord; því med margmælgi reynir hann þig, og med sínu brosi ransakar hann þig, 15. miskunarlaus heldur hann ei sín ord, 16. og hann sparar ei misþirmíng og fjøtra. 17. Gjæt þín þess vegna og vara þig, því hér er þitt fall í húsi. (18. Ef þú heyrir þetta, svo vakna af þínum svefni. Elska þú Drottinn svo leingi sem þú lifir, og ákalla hann þér til velferdar).

19. Sérhvørt dýr elskar sinn líka, 20. og hvør madur sinn náúnga. 21. Hvada samfélag hefir úlfurinn vid lambid? eins syndarinn vid þann gudrækna. 22. Hvada eindrægni er milli Hyenu og hundsins? og hvør eindrægni milli þess ríka og fátæka? 23. Villi asnar í eydimørkinni eru ljónsins bráð, eins eru þeir fátæku bráð hinna ríku. 24. Audmýktin er vidbjódur þeim dramblata; eins er sá fátæki vidbjódur enum ríka. 25. Ætli sá ríki ad detta, svo stydja vinir hans hann: en ef sá lítilmótlegi dettur, þá hrinda hans vinir á eptir honum líka. 26. Hafi þeim ríka á ordid, verda margir til ad hjálpa honum; hafi hann talad af sér, réttlæta þeir hann. 27. Hafi þeim fátæka yfirsjest, ámæla menn honum þaradauki; þó hann hafi talad hyggilega, hefir þad eingan stad. 28. Sá ríki talar og allir þegja, og hefja hans tal til skýanna. 29. Sá fátæki talar, og menn segja: hvør er þessi? og reki hann sig á, hrinda menn honum til fulls um koll. 30. Gódur er audurinn án syndar, og slæm er fátæktin í munni hins gudlausa.

31. Hjartad umbreitir andlitinu bædi til góds og ílls. 32. Audkénni góds hjarta er gladlegt andlit, og ad finna upp vélar er erfid hugsan.

## 14. Kapituli.

Sama efni.

1. Sæll er sá madur, sem ekkért verdur á med sínum munni, og sem ekki kvelst af ángri sakir sinna synda. 2. Sæll er sá sem sam-

V. 18. Vantar í sumar útgáfur Griska textans, þad er i donsku og ensku útl:

vitskan ekki áfellir, og sem ekki bregdst hans von.

3. Audurinn er ekki gódur nídskum manni, og hvar til skulu audæfi illviljudum manni? 4. Hvør sem safnar og þarfnast, sá safnar fyrir adra, og á hans eigum ala sig adrir. 5. Sá sem er hardur vid sjálfann sig, vid hvørn mun hann vera gódsamur? Hann mun ei af sínu gótsi gladur verda. 6. Einginn er verri enn sá, sem ann sér einkis góds, og þad eru launin fyrir hans vondsku. 7. Gjøri hann gott, þá gjørir hann þad óvitandi; og seinast kémst upp hans vondska. 8. Vondur er sá illviljadi, sem snýr sér undan, og kjærir sig ekki um nokkra sál.

9. Auga þess, sem er sólginn í gróda, lætur sér ekki nægja einn partinn, og hans vonda girnd þurrskrælir hans hjarta. 10. Sá nídski sparar braud og lídur skort vid sitt bord. 11. Gjør þú þér til góda, barn, eptir þínum efnum, og fær þú Drottni sæmilega fórn. 12. Hugsa þú til þess, ad daudinn dvelur ekki, og ad þér eru ei kunn undirheima løgin. 13. Gjør vin þínum gott ádur enn þú deyr, og réttu honum og géf honum eptir þínum efnum. 14. Synja þér ekki um neinn gladan dag, og lát ekki framm hjá þér fara (nokkurn) part eptiræsktra gjæda. 15. Verdur þú ekki ad skeppa vid annan þínu verki, og þínu fé vid hlutfallsins útbítíngu? 16. Géf og þigg, og gled sálu þína; 17. því í undirheimum er ekki sællífis ad leita. 18. Allt hold eldist sem fat; því þad er hid eilífa løgmál: þú skalt vissulega deya. 19. Eins og græn blød á laufgudu tré, hvørra nokkur falla af, nokkur spretta aptur: eins geingur kyni holdsins og blódsins; nokkrir deya, nokkrir fædast. 20. Allt forgeingilegt verk tekur enda, 21. og hvør sem vid þad fæst, fer líka.

22. Sæll er sá madur sem ydkar vitsku, og rádfærir sig vid hyggindi; 23. sá sem í sínu hjarta hugsar um hennar vegi og ígrundar hennar leyndardóma! hann lædist á eptir henni eins og njósnari og felur sig vid hennar inngáng. 24. Hann gjæist inn um hennar glugga, og hlustar til, vid hennar dyr; 25. leitar herbergis í nánd vid hennar hús, og rekur sinn tjaldhæl í hennar veggi; hann reisir sitt tjald vid hennar hlid (hønd), og hann gistir í blessunarinnar herbergi. 26. Hann flytur sín børn undir hennar þak, og stadnæmist undir hennar greinum. 27. Hann verdur af henni verndadur fyrir hita, og gistir í hennar ágjæta bústad.

## 15. Kapítuli.

1. Sá sem óttast Drottinn mun svo gjøra, og hvør sem heldur sig til løgmálsins, mun hana finna. 2. Hún mun koma á móti honum eins og módir, og taka vid honum eins og júngfrú. 3. Hún mun mata hann á braudi skilníngsins, og drykka hann med vatni vísdómsins. 4. Hann mun stydja sig vid hana, og ekki skeyka; hann mun ad henni hænast, og ekki verda til skammar. 5. Hún mun hefja hann yfir hans náúnga, og midt á samkomunni opna hans munn. 6. Gladværd og fagnadar krans og eilífa frægd mun hann ødlast.

7. Ekki fá hana óhyggnir menn, og syndarar sjá hana ekki. 8. Hún er fjærri drambseminni, og lygamenn hugsa ekki til hennar. 9. Ekkért fagurt lof er í syndarans munni, því þad er ekki sendt af Gudi a). 10. Því lofgjørd verdur ad eins søgd af vitsku, og Drottinn géfur sína blessan til þess.

11. Seg ekki: sakir Drottins er eg fallinn frá, því þad, sem hann hatar, átt þú ekki ad gjøra. 12. Seg ekki: Hann sjálfur hefur

V. 9. a. Nl. þad lof, sem er í syndarans munni.

leidt mig af leid, því hann, hann er ekki uppá
þann synduga mann kominn. 13. Drottinn
hatar alla vidurstygd, og þeir, sem hann ótt-
ast, elska einga. 14. Hann hefir í upphafi
manninn skapad, og géfid hann svo hans eigin
vild. 15. Ef þú vilt, þá gétur þú bodordin
haldid og vardveitt velþóknanlega hollustu.
16. Hann hefir sett fyrir þig vatn og eld: þú
gétur rétt út þína hønd til hvørs sem þú vilt.
17. Madurinn hefir fyrir framan sig lífid og
daudann, og hvørt sem hann kýs, þad verdur
honum géfid. 18. Því mikil er Drottins
vitska, hann er voldugnr ad mætti, 19. og
sjer allt; 20. og hans augu horfa á þá sem
hann óttast, og hann þekkir sérhvørt mann-
anna verk. 21. Hann hefir eingum manni
bodid ad hann skuli vera gudlaus, og eingum
leyft ad syndga.

## 16. Kapítuli.

1. Óska þér ekki margra vondra barna,
lát þér ei þykja vænt um gudlausa syni. 2.
Verdi þeir margir, þá lát þér ekki vænt um
þykja, sé einginn Guds ótti í þeim. 3. Treystu
ekki þeirra lífi og reiddu þig ekki á þeirra bú-
stad, því betra er eitt (gudrækid) barn enn þús-
und (gudlaus). 4. Og (betra er) ad deya
barnlaus, heldurenn eiga gudlaus børn. 5. Því
af einum skinsømum manni fær borgin nóga
innbúa; en ætt hinna gudlausu verdur afmád.
6. Margt þesshátttar hefi eg sjed med mínum
augum og enn fleira hefur mitt eyra heyrt.
7. Á syndara samkomu brann eldur, og hjá
óhlýdnu fólki brann reidi (Guds). 8. Hann
sættist ekki vid fornaldar risana, sem féllu frá
sakir síns styrkleika. 9. Hann sparadi ekki ad-
seturstad Lots, hvørs innbúum hann hafdi and-
stygd á sakir þeirra drambsemi. 10. Hann veitti
einga miskun fordjørfunarinnar þjód, þeim sem
hófu sig hátt í þeirra syndum. 11. Og sømu-
leidis þeim 6 hundrud þúsundum manna, sem
samtøk gjørdu, í forherdíngu þeirra hjartna;
þó ekki væri nema einn þverbrotin, svo væri
þad furda, ef hann slippi óhegndur. 12. Því
hjá honum er miskun og reidi; hanu er mikill
ad sáttgirni og hann úthellir grimd; svo mik-
il sem hans miskun er, svo mikil er og hans
hegníng; hann dæmir manninn eptir hans verk-
um. 13. Syndarinn kémst ei burt med sitt
rán, og hann ginnir ekki þolgjædi hinna gud-
ræknu. 14. Allri miskun géfur hann rúm; og
hvør og einn medtekur eptir hans verkum.

15. Seg ekki: eg felst fyrir Drottni; mun
nokkur í hædinni til mín muna? 16. Í þeim
mikla hóp verdur mín ekki minnst; því hvad
er mín sál í þeirri ómælilegu skøpun? 17.
Sjá, himininn og Guds himna himin, af-
grunnid og jørdin bifast, þá hann vitjar þeirra.
18. Fjøllin og grundvøllur jardarinnar hristast
af skélfíngu, þegar hann á þau lítur. 19. En
um þetta hugsar ekki mannsins hjarta; og hvør
er sá sem gái ad sínum vegi? 20. Eins og
stormurinn, sem madurinn ekki sjer, svo eru þau
flestu af hans verkum hulin. Hvør gétur
kunngjørt verk hans réttvísi, eda hvør gétur
þau þolad? 21. Því fjærlægt er løgmálid.
22. Hvør sem er audmýktur, hugsar um slíkt,
en sá fávísi og afvegaleiddi madur hugsar um
heimsku.

23. Heyr mig, barn, og nem þekkíngu, og
tak med þínu hjarta eptir mínum ordum! 24.
Eg gjøri lærdóm kunnann nákvæmlega (med
vigt) og kénni vandlega hyggindi. 25. Í
rádsáliktun Drottins liggja hans verk frá upp-
hafi, 26. og sídan þau voru gjørd, adgreindi
hann þeirra parta. 27. Hann nidurskipadi
sínum verkum til allra tíma, og þeirra herra-
dæmi fyrir allar kynslódir; þau húngrar ekki,
þau þreytast ekki, og þeirra framtakssemi hætt-
ir aldrei. 28. Ekkért hindrar hvad annad;

og ad eilífu hlýda þau hans bodi. 29. Eptir þetta leit Drottinn á jørdina og fyllti hana med sínum gjædum. 30. Med allslags lifandi sképnum þakti hann hennar yfirbord, og til hennar hverfa þau aptur.

## 17. Kapítuli.

Um mannsins skøpun og ákvørdun. Guds réttlæti og gjædsku.

1. Drottinn skóp manninn af jørdu, 2. og lét hann aptur til hennar hverfa. 3. Dagatølu og tiltekinn tíma gaf hann þeim (mønnunum), og hann gaf þeim vald yfir øllu sem er á jørdunni. Hann útbjó þá med krapti, og eptir sínni mynd skóp hann þá. 4. Hann lét allt hold hafa beig af þeim, og lét þá drottna yfir dýrum og fuglum. 5. Hann gaf þeim ráddeild, mál og augu, eyru, og hjarta til ad yfirvega. Med skilníngsfullri þekkíngu fyllti hann þá. 6. Og gott og íllt sýndi hann þeim. 7. Hann setti sitt auga í þeirra hjørtu, 8. til þess ad láta þá sjá mikileik sínna verka, svo ad þeir skyldu kunngjøra hans dásemdarverk og lofa hans heilaga nafn. 9. Hann jók þeirra þekkíngu, og gaf þeim til eignar lífsins løgmál. 10. Hann gjørdi vid þá eilífann sáttmála, og opinberadi þeim sín réttindi. 11. Mikileik hans dýrdar sáu þeirra augu og hans dýrdlegu raust heyrdu þeirra eyru. 12. Og hann sagdi vid þá: gjætid ydar vid øllum rángindum! Og gaf þeim einum og sérhvørjum bodord vidvíkjandi hans náúnga. 13. Þeirra vegir eru honum ávallt opinberir; þeir géta ei verid huldir fyrir hans augum. 14. Hvørri þjód hefir hann sett forstødumenn; 15. en Ísrael er Drottins hlutdeild. 16. Øll þeirra verk eru, eins og sólin, honum opinber, og hans augu horfa án afláts á þeirra vegu. 17. Ódulin eru honum þeirra rángindi, og allar þeirra syndir eru opinberar fyrir Drottni.

18. Gódgjørdir mannsins eru hjá honum (geymdar) sem sígnetshríngur, og gódsemi mannsins vardveitir hann sem sínn augastein. 19. Hér eptir mun hann taka sig upp og umbuna; og hann mun géfa umbunina á þeirra høfud. 20. En þeim sem sig bæta, géfur hann apturhvarf, og uppørfar þá sem missa þolgjædis. 21. Snú þér til Drottins, og seg skilid vid syndina; 22. bid þú hann, og mínka hneixlid. 23. Snú þér til ens ædsta, snú þér frá ránglæti. 24. Og hata med einlægni vidbjódinn.

25. Hvør gétur vegsamad hann ædsta í undirheimum, 26. í stad þeirra sem lifa, þeirra lifandi sem sýngja honum lof? Lofgjørdin hefir enda hjá þeim daudu, sem ekki eru til. 27. Hvør sem lifir og er heill, sá gétur lofad Drottinn.

28. Hvørsu mikil er Drottins miskunsemi og sáttgirni vid þá sem snúa sér til hans! 29. Allt gétur ekki í mønnunum verid, þared mannsins barn er ekki ódaudlegt. 30. Hvad er bjartara enn sólin? þó formyrkvast hún, og sá vondi hefir hugann á holdi og blódi. 31. Hún a) sjer út yfir her þess háa himins, en menn eru mold og aska.

## 18. Kapítuli.

Sama efni og nokkrar lífsreglur.

1. Sá sem eilíflega lifir tilbjó jafnt alla hluti. 2. Ad Drottni einum verdur ekkért fundid. Eingum lét hann audnast ad útskíra sín verk, og hvør gétur ransakad til hlýtar hans miklu dásemdir? 3. Hvør gétur mælt hans mikla mátt? 4. Og hvør gétur þar ad auki talid upp votta hans miskunsemi? 5. Menn géta hvørki mínkad né aukid, menn géta ekki

V. 31. *a.* Nl. Sólin.

útgrundad Drottins dásemdir. 6. Þegar madurinn hefir endad, þá birjar hann; og þegar madurinn er hættur, svo er hann rádalaus. 7. Hvad er madurinn og hvar til dugir hann? Hvad er hans hid góda og hvad hans hid illa? 8. Hans daga tal er, þegar lifir leingi, hundrad ár. Eins og vatnsdropi úr hafinu og eitt sandkorn, svo þau fáu ár í eilífdarinnar tíd. 9. Því er Drottinn þolinmódur vid þá, og úthellir sinni miskunsemi yfir þá. 10. Hann sjer og veit ad þeirra endir er slæmur, 11. sakir þess er hann því sáttgjarnari. 12. Mannsins miskunsemi nær til allra hans náúnga, en Guds miskunsemi útyfir allt hold. 13. Hann umvandar og agar og mentar og leidir til baka, eins og hirdirinn sína hjørd. 14. Hann miskunar þeim sem taka aga og þeim sem leggja alúd á hans réttindi.

15. Þegar þú veitir velgjørd, barn, þá varastu bríxlyrdi, og nær sem þú géfur, meidandi tal. 16. Kjælir ekki døggin hitann? þannig er (gott) ord betra enn gjøf. 17. Er ekki eitt ord meira enn góð gáfa? en hvørttveggja fylgist ad hjá blídum manni. 18. Dárinn bríxlar óvinsamlega, og gjøf þess illmannlega daprar augun.

19. Lær ádurenn þú talar, 20. og brúka læknismedøl ádurenn þú verdur veikur. 21. Ransaka þig sjálfann ádurenn dómurinn kémur, svo muntu finna náð á refsíngarinnar tíma. 22. Audmýktu þig ádurenn þú verdur sjúkur, og sýn umvendun þá tækifæri er til ad syndga. Lát þig ei hindra ad greida heit á réttum tíma, og bíd ei til daudans ad réttlæta (lagfæra) þig. 23. Ádurenn þú lofar, tilreid þig, og vert ei sem sá er freistar Drottins. 24. Hugsa um reidi (Guds) á dauda deginum, og um hefndarinnar tíma, þegar hann snýr sínu andliti frá þér. 25. Hugsadu til húngursins tíma á nægtanna tíma, til fátæktar og skorts á audlegdarinnar tíma. 26. Frá morgni til kvølds breitir tídin sér, og allt er fljótt frammi fyrir Gudi. 27. Vitur madur er í øllu framsýnn, og á syndarinnar tíd vardveitir hann sig frá yfirtrodslu. 28. Hvøreinn hygginn madur þekkir vitskuna og lofar þann sem hana finnur. 29. Hvør sem er hygginn í ordum, sá breytir og hyggilega og framflytur snillyrdi ríkuglega sem vel vid eiga.

30. Gakk ekki eptir þínum girndum, og legg taum vid þínar eptirlánganir. 31. Ef þú lætur eptir þinni sál, þad sem girndinni gédjast, svo gjørir þú þig sjálfann ad gisi þínum óvinum. 32. Gled þig ekki vid mikid sællífi, og legg ei þinn skérf til þess heimboda. 33. Gjør þig ei snaudan med því ad kosta til heimboda af lánudu fé, þegar þú hefir ekkért framar í þínum sjód.

## 19. Kapítuli.

Einstakar lífsreglur.

1. Ofdrykkjusamur erfidismadur verdur ekki ríkur; hvør sem metur lítils þad litla, fellur skjótt. 2. Vín og konur afvegaleida þá vitru. 3. Og hvør sem samlagar sig skjækjum er mjøg hugsunarlaus. Mølur og ormar fá hann ad erfd, og sú hugsunarlausa sál verdur þángad hrifin. 4. Sá, sem skjótlega treystir, hefir lítid vit, og hvør sem syndgar, brýtur móti sinni sálu. 5. Hvør sem fagnar yfir því illa, verdskuldar last, en hvør sem mótstendur girndunum, krýnir sitt líf, hvør sem drottnar yfir sinni túngu, lifir í ró; og hvør sem hatar mælgi, bakar sér lítid íllt. 6. Talid skaltu aldrei upp aptur taka, og þitt verdur ei minna fyrir þad. 7. Seg hvørki vin né óvin frá (øllu). 8. Og sé þér þad ekki synd, þá uppljósta eingu. 9. Því (madurinn) hann heyrir til þín, varar sig á þér, og hatar þig vid tækifæri. 10. Hafir

þú heyrt eitthvad, svo láttu það með þér deya, vertu rólegur, þú rifnar ei af því (að þegja yfir). 11. Heimskínginn fær hríðir af einu orði, eins og jóðsjúk kona af barni. 12. Eins og píla sem stendur í mjøðminni, svo orð í innislum heimskíngjans.

13. Kom að máli við vin þinn: kannské hann hafi ekki gjørt það (sem honum er borið); og hafi hann gjørt það, til þess hann gjøri það ei aptur. 14. Kom að máli við vin þinn: kannské hann hafi ekki sagt það; og hafi hann sagt það, að hann segi það ei aptur. 15. Kom að máli við vin þinn; því opt er (slíkt) óhróður; og trú ekki øllu sem talað er. 16. Einum verður á, en ekki af ásetníngi; og hvør er sá sem aldrei hefir syndgað með sinni túngu? 17. Kom þú að máli við naúnga þinn, áðurenn þú hótar og géf þú rúm løgmáli ens æðsta.

18. Øll vitska er ótti Drottins, og hlýðni løgmálsins er hjá allri vitsku. 19. Þekkíng vondskunnar er ekki vitska, og ekki eru hyggindi þar sem að er ráðagjørð syndara. 20. Vondska er það, og hún er viðbjóður, og sá er dári, sem vitskuna vantar. 21. Betra er að hafa lítinn skilníng og vera guðhræddur, heldurenn mikinn skilníng og yfirtroða løgmálið. 22. Til er skarpskign sniðugleiki, en hann er ránglátur; og sumir meiða mannkjærleikann, þá þeir leggja á dóm. 23. Margur illvirki sýnist bjúgur af sorg, en hans hið innra er fullt af prettum. 24. Hann heyngir niður høfuðið, og lætst ekki heyra; en hvar sem ei er eptir honum tekið, mun hann þig yfirfalla. 25. Og hafi hann ei orku til að syndga, gjørir hann þér íllt, strax sem honum géfst tækifæri.

26. Af sjóninni þekkist maðurinn, og sá skinsami þekkist strax sem menn mæta honum af sínu andliti. 27. Klæðnaður mannsins, hlátur tannanna og hans gángur, segja til hvað með honum býr.

## 20. Kapituli.

1. Til er aðfindni í ótíma, og margur þegir, og er hygginn. 2. Mikið betra er að ávíta enn að geyma kala; 3. Og hvør, sem hispurslaust meðkénnir, kémst hjá tjóni. 4. Eins og géldíngur sem vill afmeya únga stúlku, svo er sá, sem með ofbeldi semur dóma. 5. Einn þegir og verður haldin vitur: annar bakar sér hatur með sinni mælgi. 6. Einn þegir, af því hann hefir ekki svar til; annar þegir, af því hann þekkir þann rétta tíma. 7. Vitur maður þegir til þess sá rétti tími er kominn; en sá málugi og heimskínginn verða fyrri til. 8. Menn fá andstygð á þeim margmáluga, og sá freki verður hataður. 9. Margur er heppinn í óheppni, og til er sá ávinníngur sem verður að skaða. 10. Mørg gáfa verður þér að eingu gagni, og mørg gáfa verður tvøfaldlega umbunuð. 11. Nokkrir verða snauðir, vegna dýrðlegs aðbúnaðar, og sumir hefja høfuðið upp úr auðvirðilegleikanum. 12. Margur kaupir mikið fyrir lítið, og betalar það þó sjøfaldt. 13. Sá vitri útvegar sér vinsæld með sínu tali; en narrans þægilegu orð eru til einkis. 14. Narrans gáfa verður þér að eingum notum; því í staðinn fyrir eitt lítur hann á margt. 15. Lítið géfur hann, og margt telur hann eptir, og hann hefir munninn opinn sem úthrópari; í dag lánar hann, og á morgun krefur hann þess aptur. Haturs verður er slíkur maður. 16. Dárinn segir: „eg á eingann vin, fæ einga þøkk fyrir mínar velgjørðir; 17. þeir sem eta mitt brauð, hafa vonda túngu". 18. Hvørsu opt verður sá hinn sami spottaður, og af hvað mørgum! 19. betra er að detta á gólfi, enn að fá biltu af túngunni, svo kémur svipleya bilta hinna vondu. 20. Aflægislegur maður bladrar það sem hvørgi á við, það er heimskíngja háttur. 21. Snillyrði heimskíngjans er einkisverdt, því

þad kémur í ótíma. 22. Af skorti hindrast margur frá ad syndga, og í sínu kyrrláta lífi hefir hann einga samvitsku nøgun. 23. Margur missir lífid sakir feilni, og vegna manngreinar álits tínir hann því. 24. Margur lofar sínum vin einhvørju af feilni, og gjørir sér hann ad óvin naudsynjalaust, géti hann ekki efnt. 25. Lýgi er leidur skammarblettur á manni, hún er algeing í dárans munni. 26. Betri er þjófurinn, enn sá sem temur sér lýgi, en bádir erfa tjón. 27. Athæfi lýgins manns er ærulaust, og hans skømm fylgir honum ávalt. 28. Vitur madur kémur sér fram med sínu tali, og hygginn madur gédjast høfdíngjunum. 29. Hvør sem yrkir akur, stækkar sína (korn) hrúgu; og hvør sem gédjast høfdíngjunum forlíkar rángindin. 30. Gáfur og skeinkíngar blinda augu hinna vitru, og hindra adfindni, eins og beitsli í munni. 31. Falin vitska og ósýnilegur fjársjódur, til hvørs gagns er þad hvørttveggja? 32. Betri er sá madur sem felur sína fávitsku, heldur enn sá madur sem felur sína vitsku.

## 21. Kapítuli.

Sama efni.

1. Hafir þú syndgad, barn, þá haldtu ei áfram, og bid (fyrirgéfníngar) á því fyrra. 2. Flý syndina sem høggorm, því komir þú henni nærri, svo stíngur hún þig. 3. Hennar tennur eru ljóns tennur, og svipta manninn lífi. 4. Sérhvør rángindi eru sem tvíeggjad sverd; eingin lækníng er vid þess sárum. 5. Ofbeldi og gudleysi eydileggur aud; svo verdur hús hins drambláta eydilagt. 6. Grátbeidni hins auma þreyngir sér frá munninum allt til hans a) eyrna, en hans refsidómur kémur snøgglega. 7. Sá sem hatar umvøndun er á syndarans leid; en sá, sem óttast Drottinn, umvendir sér í sínu hjarta. 8. Sá sem hefir øfluga túngu þekkist áleingdar; en sá skinsami veit nær hann hrasar. 9. Hvør sem byggir sitt hús af annara gótsi, hann er sem sá er safnar steinum, ad sínni eigin grøf. 10. Søfnudur gudlausra er hálmhrúga, og endir þeirra eldsbál. 11. Vegur syndaranna er steinlagdur, en á endanum er afgrunn undirheima.

12. Hvør sem gjætir løgmálsins, fær skilníng á því; 13. og endirinn á Drottins ótta er vitska. 14. Sá sem ekki er hygginn, tekur eingum aga. 15. Hyggindi eru til, sem olla mikillrar armædu. 16. Þekkíng hins vitra vex eins og vatnsflód, og hans rád eru sem lifandi vatns lind. 17. Hjarta dárans er eins og brotid ílát, þad heldur eingum fródleik. 18. Þegar sá hyggni heyrir hyggilegt ord, hrósar hann því og samsínnir. En ef sá þverbrotni heyrir þad, mislíkar honum, og kastar því á bak sér aptur. 19. Tal narrans er sem byrdi á vegi; en á vørum hins hyggna er unan. 20. Í søfnudinum er leitad munns þess hyggna, og menn yfirvega hans tal í sínu hjarta. 21. Vitskan er dáranum sem nidurrifid hús, og þekkíng hinna skilníngslausu, er óskiljanlegt tal. 22. Óskinsamir menn álíta uppfrædíngu fótahlekki, og fjøtra á hægri hendi. 23. Tilsøgn er þeim hyggna gull skart, og sem smídisgripur á hægra armi.

24. Narrans fótur er fljótur í hús; en reyndur madur feilar sín fyrir mønnum. 25. Aflagid gjægist inn um dyrnar í húsid; en sá velsídadi madur stendur þar fyrir utan. 26. Ósídadur er hvør sá sem stendur á hleri vid dyrnar; þeim hyggna verdur þad til vansa. 27. Varir hins máluga bladra óþarfa; en tal hins hyggna er vegid á vog. 28. Dárar hafa hjartad í munninum, en þeir vitru munninn í

V. 6. *a.* Líklega Guds.

hjartanu. 29. Narrinn hlær hátt, en hygginn madur brosar naumast smátt.

30. Þegar sá gudlausi formælir Satan, þá formælir hann sjálfum sér. 31. Søgvís madur flekkar sjálfann sig, og øllum, sem hann umgángast, verdur illa vid hann.

## 22. Kapítuli.

Sundurlausir þánkar.

1. Latur madur er líkur óhreinum steini og hvør einn gjørir gis ad hans skømm. 2. Sá lati er líkur mykjuklessu: hvør sem tekur hann upp, hristir høndina. 3. Þad er skømm fyrir fødurinn ad hafa gétid ósídadann son; en (slík) dóttir er til lægíngar borin. 4. Skinsøm dóttir fær sér mann; en sú ósídsama hryggir þann sem hana gat. 5. Fødur og mann vanvirdir sú ósvífna, og verdur af bádum fyrirlitin. 6. Saunglist í harmi er frásaga í ótíma, refsíng og agi er vitskunnar verk á øllum tíma. 7. Sá sem kénnir dára, límir saman leirbrot; hann vekur þann sem sefur af djúpum svefni. 8. Sá sem talar vid dárann, talar vid þann sem dottar; 9. og hann segir seinast: hvad er þad? 10. Grát yfir þeim dauda, því hann hefir mist ljóssins; og grát yfir dáranum, þegar vitid er honum horfid. 11. Grát þú vægilegar yfir þeim dauda, því hann er kominn til hvíldar; 12. en líf dárans er verra enn daudinn. 13. Harmurinn yfir þeim dauda varir 7 daga; en yfir dáranum og þeim gudlausa alla daga þeirra lífs. 14. Tala þú ekki mikid vid dárann, og haf ei umgeingni vid heimskíngjann. 15. Vara þig á honum, svo þú hafir einga armædu (af honum) og verdir ekki skørnugur af hans óþverra. 16. Hlidra þér hjá honum, svo finnur þú ró, og kémst ekki í vandrædi fyrir hans óvit. 17. Hvad er þýngra enn blýid? Og hvør má svo nefnast, nema dárinn? 18. Sand og salt og járnkløkk er léttara ad bera heldurenn heimskann mann. 19. Vidarbjálki, festur vid hús, verdur af eingri hristíngu feldur, svo bifast aldrei þad hjarta, sem stydst vid hyggilegt rád. 20. Þad hjarta sem reidir sig á skinsamlega yfirvegan, er sem límkast (sandi bløndud vidhøfn) á sléttum vegg. 21. Staung á hæd reist, gétur ei stadist vedur; 22. svo stendst ei deigt hjarta, med heimskulegri hugsan, nokkra hrædslu. 23. Sá sem kreistir augad, pressar út tár; 24. og sá sem kreistir hjartad, vekur tilfinníngu.

25. Hvør sem kastar steini í fugla, sá fælir þá; og hvør sem bríxlar vin sínum, sundurslítur vinskapinn. 26. Þó þú hafir rikt sverdi móti vin þínum, þá ørvæntu samt ekki; því enn nú er apturhvarf møgulegt. 27. Hafir þú komid ad máli vid vin þinn, svo vertu áhyggjulaus, forlíkun gétur á komist; nema sé um hádúng ad gjøra, drambsemi, uppljóstur leyndarmála og leynileg svik. Þetta flæmir hvørn vin í burtu. 28. Afla þér tiltrúar hjá þínum náúnga í hans fátækt, svo þú ásamt gétir tekid hlutdeild í hans velgeingni. 29. Vertu stadfastur hjá honum í neydinni, svo þú takir arf med honum, þá hann erfir. 30. Á undan eldinum geingur gufa ofnsins og reykur; eins deilur á undan blóds úthellíngu. 31. Ekki mun eg skammast mín ad verja vin minn, og ekki mun eg fela mig fyrir honum. 32. Og kénni eg á íllu af hans hálfu, mun hvør, sem þad heyrir, vara síg á honum. 33. O! hvør setur lás fyrir minn munn og hyggilegt innsígli fyrir mínar varir, svo þær ekki felli mig, og mín túnga vinni mér ekki tjón!

## 23. Kapítuli.

Bæn móti misbrúkun túngunnar og illri girnd, ásamt þaradlútandi snillyrdum.

1. Drottinn, fadir og herra míns lífs! ofursel mig ekki þeirra vild, (ɔ: varanna) og lát

mig ei, sökum þeirra, steypast í óhamíngju! 2. Hvør hefir hirtíngar vønd á lopti yfir mínum hugsunum og tilreidir vísdómsmentun mínu hjarta, ad þetta (vøndurinn og mentunin) hlífist ei vid mína bresti, og láti ei órefstar mínar misgjørdir, 3. svoad mínar yfirsjónir fjøldgi ekki og mínar syndir saman hrúgist ekki, ad eg ei falli fyrir augum minna mótstødumanna, og minn óvinur hlakki ekki yfir mér!

4. Drottinn, fadir og Gud míns lífs! 5. leyf mínum augum ekkért gírugt tillit, og snú frá mér girnd! 6. Lát búksins grædgi og munad ekki fjøtra mig og ofursel mig ekki óskammfeilnu sinni!

7. Lærid, børn, munnsins aga! hvør honum fylgir mun ei af sínum vørum fánginn verda. 8. Syndarinn verdur ánetjadur og sá lastmálgi og drambsami falla sakir þeirra (varanna).

9. Ven ekki þinn munn á ad sverja, og ven þig ekki á ad nefna þann heilaga! 10. því eins og sá þræll, sem ávalt er lamin, er ekki ørkumslalaus: 11. svo gétur ei sá, sem ydugglega sver og nefnir (Guds nafn) verid syndlaus. 12. Sá sem opt sver, hledur á sig sekt, og refsíngin verdur ei lángt frá hans húsi. 13. Hlaupi hann á sig, svo hledur hann á sig sekt; og verdi hann þess ekki var, syndgar hann tvøfaldlega. 14. Og sverji hann til ónýtis, verdur hann ekki réttlættur, heldur verdur hans hús ofhladid af óhamíngju. 15. Pad tal er til sem umkríngist á allar hlidar af dauda; þad finnist ei í Jakobs húsi! 16. því lángt frá þeim gudrækna er allt þesshàttar, og þeir láta sig ei í syndum flækja. 17. Ven ekki munn þinn á óþveginn rusta hátt; því þar í er syndugt tal.

18. Mun þú til fødur þíns og módur þinnar, þegar þú situr medal gøfugra (manna), 19. svo þú ei þessara vegna gleimir þeim (foreldrunum), og venjir þig ekki svo heimskulega, ad þú vildir helst ei af þeim borinn vera, og formælir þínum fædíngardegi. 20. Hvør sem venur sig á hædnis tal, sá verdur alla sína æfi ósidadur. 21. Tvennt eykur syndir og hid þridja leidir med sér reidi, 22. brennandi sál, eins og logandi eldur, slokknar ekki, fyrrenn hún er uppbrunnin; 23. Løstasamur madur hefir einga ró í sínum líkama, fyrr en hann hefir tendrad eld. 24. Hórkallinum þykir allur matur sætur; hann hvílist ekki fyrri enn hann er daudur. 25. Sá madur sem geingur fram hjá sinni sæng, og med sér hugsar: „hvør sjer mig? 26. Pad er dimt í kríngum mig: veggirnir fela mig; eínginn madur sjer mig: hvad skal eg ræðast? Sá ædsti mun ei minnast minnar syndar!" 27. Hann hefir ad eins ótta fyrir manna augum, 28. en hann veit ekki, ad augu Drottins eru miklu skjærari enn sólin, horfa á alla mannanna vegu og sjá inní þá heimuglegu afkima. 29. Allir hlutir voru hónum kunnir, ádurenn þeir voru skapadir; þá einnegin eptir ad þeir eru fullgjørdir. 30. Slíkur madur mun á strætum stadarins verda fyrir refsíngu, 31. og þar gripinn, sem hann síst ætlar.

32. Eins sú kona sem yfirgéfur sinn mann, og fædir í heiminn erfíngja med ødrum. 33. Því fyrst var hún óhlýdin bodi hins ædsta, og í annan stad, hefur hún brotid vid sinn mann, og í þridja lagi hefir hún med hórdómi rofid hjónabandid, og fædt barn í heiminn med ødrum. 34. Slík kona mun verda leidd fram fyrir søfnudinn, og hegníngin kémur yfir hennar børn; 35. børn hennar munu eingar rætur festa, og þeirra greinir einga ávexti bera. 36. Hún eptirskilur sína endurminníng til bølvunar, og hennar skømm verdur ekki afmád. 37. Og svo læra nidjarnir, ad ekkért er betra enn ótti Drottins, og ekkért sætara enn vardveitsla Drottins bodorda.

## 24. Kapítuli.

Hrós spekinnar.

1. Spekin lofar sjálfa sig, og midt á medal fólksins hrósar hún sér. 2. Í søfnudi ens ædsta, opnar hún sinn munn, 3. og frammi fyrir hans her hrósar hún sér (og segir): 4. „Eg útgékk af munni ens ædsta, 5. og þakti sem þoka jørdina. 6. Eg bjó í hædinni, og mitt hásæti stód á skýanna støplum. 7. Um himinsins hríng fór eg ein, 8. og í afgrunnsins djúpi var eg á gángi. 9. Í bylgjum sjáfarins og á allri jørdinni, 10. og medal allra lýda og þjóda tók eg eign". 11. „Hjá øllum þessum leitadi eg hvíldar, og í hvørra erfd eg gjæti stadnæmst. 12. Þá gaf Skapari allra hluta mér bodord, og sá, sem mig skóp, setti fastann minn bústad og mælti: 13. Í Jakob skaltu búa, og hafa eign þína í Ísrael. 14. Fyrir tímann, frá upphafi skóp hann mig, og eilíflega mun eg vidvara; í heiløgu tjaldi þjóna eg frammi fyrir honum, 15. og svo fékk eg á Síon varanlegann stad. Í þeirri elskudu borg gaf hann mér sømuleidis hvíldarstad, og í Jerúsalem er mitt veldi".

16. Og svo festi eg rætur hjá dýrdlegu fólki, í eign Drottins. 17. Eg óx upp, sem Sedrusvidur á Líbanon, og sem furu tré á Hermons fjalli. 18. Eins og pálmavidur í Engaddi óx eg upp, og sem rósatréd í Jerikó; 19. eins og fagur vidsmjørsvidur á sléttlendi, og sem valbjørk óx eg upp. 20. Eg gaf ilm af mér sem kanel og kriddjurtir, og sem útvalin Myrra útbreiddi eg góda lykt, 21. eins og Galban og Onyk og Stakte og reykelsis ilmur í musterinu. 22. Eins og Terebint tré útbreiddi eg mínar greinir, og mínar greinir voru álitlegar og fagrar greinir. 23. Eg var sem elskulegur vínvidur í blómgun, 24. og mín blómstur báru dýrdlega og ríkuglega ávexti". 25. „Komid til mín, þér sem girnist mig, 26. og mettid ydur á mínum ávøxtum! 27. Því mín tilhugsan er sætari enn hunáng, og ad eiga mig, er betra enn hunángsseimur. 28. Sá sem mig etur er ætíd húngradur, 29. og hvør sem mig drekkur, er ætíd þyrstur. 30. Hvør sem mig heyrir verdur ekki til skammar; 31. og hvør sem gjørir sér annt um mig, syndgar ekki.

32. Allt þetta er ens ædsta Guds sáttmála bók, 33. þad løgmál, sem Móses baud, svo sem eign Jakobs safnadar, 34. sem flóir út af speki, sem Píson, 35. og eins og Tígris á vordøgum, 36. sem streymir af skilníngi, eins og Frat, og eins og Jórdan á kornskéra døgunum. 37. Sem úthellir uppfrædíngu, sem (ánni) Níl, og sem (áin) Gíhon, þá vínberjum er safnad. 38. Sá fyrsti hefir hana ei fullnumid, og eins útgrundar hana ekki sá seinasti. 39. Því fyllri er hennar hugsan enn sjórinn, og hennar rád dýpra enn þad mikla afgrunn. 40. Og eg var sem skurdur frá fljóti, sem vatns veitíng rann eg í lysti garda. 41. Eg sagdi: eg vil vøkva minn aldingard. 42. og drykkja mitt bed: 43. og sjá! þá vard minn skurdur ad vatnsfalli. 44. Og mitt vatnsfall ad hafi. 45. Sem morgunroda útbreiddi eg sídan minni uppfrædíngu, og auglýsi hana í fjarlægd. 46. Eg læt mentun útstreyma sem spádóm, og eptirlæt hana þeim komandi ættlidum. 47. Sjáid! ad eg vinn ekki fyrir mig eina, heldur fyrir alla, sem hennar (mín) leita.

## 25. Kapítuli.

Ymisleg sannmæli og lífsreglur.

1. Med þremur hlutum prýdi eg mig, og geing í skarti fram fyrir Drottinn og menn. 2. Eindrægni medal brædra, vinskap milli náúnga, og milli manns og konu, sem vel

V. 27. Adr: frædir sem ljós.

kémur saman. 3. En þrjár tegundir hatar mín sál, og eg hefi mikla andstygd á þeirra lífi. 4. Fátækling dramblátann, og ríkann mann lýginn, og gamlann mann heimskann, sem tekur fram hjá. 5. Hafir þú eingu safnad í æskunni, hvörnig viltu þá í ellinni nokkud finna? 6. Hvörsu vel sæmir þeim gráu hárum ad vita úrskurd og þeim gømlu ad vita rád! 7. Hvörsu søgur er vitskan hjá þeim gømlu og yfirvegun og ráddeild hjá gøfugum mønnum! 8. Kóróna hinna gømlu er mikil reynsla, og ótti Drottins þeirra hrós.

9. Níu hugsanir prísa eg í hjartanu sælar, og þá tíundu vil eg med minni túngu vegsama. 10. Þann mann sem hefir gledi af sínum børnum; þann sem lifir og sjer fall síns óvinar. 11. Sæll er sá sem lifir med skinsamri konu; og sá sem ei yfirsjest med túngunni; og sá sem ei þjónar óverdugum. 12. Sæll er sá sem hefir fundid hygginði og kunngjørir þau athyglisømum eyrum. 13. Hvörsu mikill er hvør sá sem vitskuna finnur! 14. en hann er samt ekki meiri enn sá sem óttast Drottinn. 15. Ótti Drottins yfirgnæfir allt. 16. Vid hvad má þeim jafna sem hefur hann? 17. Øll sløg (má þola), ad eins ekki hjartans slag; 18. alla vondsku, ad eins ei konu vondsku; 19. alla refsíng, ad eins ekki haturs manna; 20. og alla hefnd, ad eins ekki óvina hefnd! 21. Ekkért eitur er verra enn høggorms eitur, og eingin reidi yfirgeingur fjandmannsins reidi. 22. Eg vildi heldur búa medal ljóna og dreka heldur enn hjá vondri konu. 23. Vondska konunnar aflagar hennar útlit, og formyrkvar hennar ásýnd sem hærusekkur. 24. Hennar madur situr til bords í sínna vina hríng, og heyri hann (hennar gétid), stynur hann sárann. 25. Øll vondska er lítil hjá konunnar vondsku. Hlutfall syndarans hitti hana! 26. Kífin kona er hóglyndum manni, þad sem sendin gata er gamalmenni. 27. Lát ekki konu fríðleik lokka þig, og haf ekki girnd til nokkurrar konu. 28. Reidi, óskammfeilni og mikil skømm, (flýtur af því), 29. þegar konan færir sínum manni audlegd. 30. Sorgfullt hjarta, hryggt andlit og sinnis kvøl, er vond kona. 31. Linar hendur, magnlaus kné (er) sú, sem ei gjørir mann sinn sælann. 32. Af konunni eru syndarinnar upptøk, og søkum hennar deyum vér allir. 33. Leyf vatninu einga (gégnum) rás, og vondri konu ekkért vald. 34. Láti hún þína hønd ekki leida sig, svo skil hana vid þitt hold.

## 26. Kapítuli.

Sama er áframhaldid.

1. Sæll er sá madur sem á góda konu, hans dagatal tvøfaldast. 2. Væn kona gledur sinn mann, og hann endar sín ár í fridi. 3. Góð kona, gott hlutfall: hún verdur þeirra hlutskipti sem óttast Drottinn. 4. Veri hann ríkur eda fátækur, hans hjarta er samt ánægt, ávallt hans andlit gladlegt. 5. Vid þrjá hluti er mitt hjarta hrædt, og eg hefi framfallandi afbedid þann fjórda. 6. Rógburd í borginni, uppreist almúgans og álygar til dauda; 7. þetta allt er þúngbært. 8. Hjartans ángur og sorg er sú kona, sem vandlætir um adra og lætur svipu sinnar túngu gánga yfir alla. 9. Vond kona (er) baldid akneytapar, 10. hvør sem til hennar seilist, nær skorpíoni (ormi). 11. Drykkju kona er mikil plága; hún hylur ekki eigin blygdan. 12. Lauslæti konunnar þekkist af hennar gíruglegu augum og af hennar augnalokum.

13. Haf þú gott taumhald á óseilinni dóttur, ad hún finni ekki slakann taum og noti sér þad. 14. Tak þú eptir hennar ósvífna augnarádi, og láttu þér ekki koma óvart þó hún brjóti á móti þér. 15. Eins og þyrstur gaungumadur opnar

hún munninn, og drekkur af hvørju sem helst nálægu vatni; gagnvart sérhvørjum tjaldhæl setst hún nidur, og opnar, fyrir pílunni, ørfamælirinn.

16. Konunnar yndislegleiki veitir unadsemd hennar manni, og hennar hyggindi hella merg í hans bein. 17. Fámálug kona er Drottins gáfa, 18. og hyggin sál er ómetanleg. 19. Hreinlíf kona er ununarsamleg, 20. og ekkért jafnast vid bindindissama sálu. 21. Sú upprennandi sól á Drottins himni, og fegurd gódrar konu, er sem prýdi hennar húss. 22. Lampi geistlandi á þeim heilaga ljósastjaka og fegurd (hennar) andlitis á føstum aldri. 23. Gullstólpi á silfurfæti, 24. og frídir fætur á sólum þeirrar velvørnu a).

25. Af tvennu hryggist mitt hjarta, og af því þridja illskast eg: 26. þegar strídsmadurinn þolir skort af fátækt, og hygguir menn verda lítilsmetnir; 27. og þegar einhvør snýr sér frá dygd til syndar: Drottinn mun ætla hann sverdinu. 28. Traudlega mun kaupmadurinn varast misgjørd, og kramarinn verdur ei hreinn af synd.

## 27. Kapítuli.

Sama efni.

1. Margir syndga søkum fánýtra gjæda, og hvør sem vill græda, snýr augum sínum frá (því rétta). 2. Milli steina er nagli rekinn, 3. og milli kaups og sals þreyngir syndin sér. 4. Haldi menn sér ekki fast ad ótta Drottins, mnn þeirra hús skjótt nidurrifid verda.

5. Þegar sáldur er hrist, verdur ruslid eptir: svoleidis mannsins óklárindi í hans tali. 6. Ofninn reynir kér leirsmidsins, og mannsins próf er í hans tali. 7. Ávøxtur trésins kunngjørir þess ræktun, svoleidis tal mannsins, hans hjartans hugsanir. 8. Hrósa eingum manni ádurenn hann talar, því (talid) er mannanna próf. 9. Ef þú sækist eptir réttlætinu, muntu þad finna, og því íklædast, sem heidurs búníngi. 10. Fuglarnir hafa herbergi hjá sínum líkum, og sannleikurinn kémur inn til þeirra sem hann ydka. 11. Ljónid situr um brádina, eins syndin um þá sem rángt ydka. 12. Tal hinna gudrækun er ætíd vitska; en afglapinn breytist eins og túnglid. 13. Tak þú eptir tímanum í hóp afglapanna, en dvel þú í hóp hinna hyggnu. 14. Narranna tal er vidbjódur og þeirra hlátur vid syndsamlegt svall. 15. Svardagar hinna gálausu láta hárid rísa þér á høfdi, og kíf þeirra kémur þér til ad halda fyrir eyrun. 16. Stríd hinna dramblátu er blóds úthellíng, og óþolandi er ad heyra þeirra lastyrdi.

17. Þeim trúa menn ekki sem uppljóstar leyndarmálum, og hann finnur eingann vin sínni sálu. 18. Elska þinn vin og vertu honum trúr. 19. Enn hafir þú opinberad hans leyndarmál, þá eltu hann ekki framar. 20. Því eins og madur tortínir sínum óvin, svo hefir þú tortínt vinskap þíns náúnga. 21. Og eins og þú sleppir fugli þér úr hendi, svo hefir þú látid vin þinn fara, og þú munt ei ná honum apt-

---

V. 24. a. Hér bæta nokkrar útleggingar inn þessum ordum; en þau eru ei í Septúag: Barn mitt! geim þíns aldurs besta krapt í heilbrigdi og géf ei annarlegum þinn styrk. Þegar þú hefir valid af øllum vellinum jardgóda hlutdeild, sá þar þínu eigin sædi treystandi þínum kyngjædum, þá munu þín afkvæmi vel dángast og verda ørugg af sínu góda kyni. Kona sú sem leigir sig, reiknast jøfn vid svín, en sú sem er manni gipt, hún reiknast daudans turn þeim (sem vilja hana) brúka. Ogudrækin kona verdur géfin sem hlutdeild ránglátum manni, en sú gudrækna þeim sem óttast Drottinn. Ósidsøm kona adhefst vanvirdu, en sidsøm dóttir ber virdingu fyrir manninum. Óskammfeilin kona er reiknud sem hundur, en sú, sem hefir feilni, óttast Drottinn. Sú kona sem heidrar mann sinn, þykir øllum vitur; en sú sem vanvirdir hann, verdur øllum kunn sem óaudrækin í ofmetnadi. Sæll er madur gódrar konu; tala hans ára mun tvøfaldast. Ad háromadri og tannhvassri konu skal leita, til ad snúa óvinum á flótta. En hvørs manns sál, lík þessum ad háttsemi, verdur til sinnis, sem hún væri í strids óróa.

ur. 22. Far þú ekki eptir honum, hann er kominn lángt í burt, hann er flúinn eins og rádýr úr neti. 23. Því um sár má binda og ill-yrdi má forlíka; 24. en sá, sem uppljóstar leyndarmálum, hefir einga von.

25. Hvør sem deplar augunum hefir íllt í hug; og hvør sem hann þekkir, sá fordast hann. 26. Hann gjørir tal sitt sætt fyrir þínum augum; og dáist ad þínum ordum; en þareptir breytir hann sínu tali, og leggur fyrir þig ásteytíng med þínum ordum. 27. Margt hata eg, en líki eingu vid hann; Drottinn hatar hann líka.

28. Hvør sem kastar steini uppí loptid, sá kastar honum sér í koll. Og svikfamlegt høgg ýfir upp sár. 29. Sá sem grefur grøf fellur í hana; og sá sem leggur snøru, verdur í henni fángin. 30. Hvør sem íllt adhefst, á hinn sama velltist þad til baka, án þess hann viti hvadan þad kémur yfir hann. 31. Hædni og spott er hjá dramblátum; en hefndin situr um þá sem ljón. 32. Þeir sem gledjast af falli enna gudrækna, verda teknir í snørunni; og sorg tortínir þeim ádur enn þeir deya. 33. Hatur og reidi, þetta er vidbjódur, og þetta er eign syndarans.

## 28. Kapítuli.

1. Hvør sem hefnir sín, á þeim mun Drottinn aptur hefna; og hans syndir mun hann vísar geyma. 2. Fyrirgéf þínum náúnga mótgjørdina; þá verda þér, þegar þú bidur, líka fyrirgéfnar þínar syndir. 3. Einn madur geymir ødrum reidi, og leitar fyrirgéfníngar hjá Drottni! 4. Vid menniná, sína líka, hefir hann einga miskun, og bidur (um miskun) sakir sinna synda. 5. Hann, sem er hold, geymir hatur: Hvør mun fyrir hans syndir forlíka?

6. Hugsa til endans, og hættu fjandskapnum; 7. til rotnunar og dauda, og vertu stødugur vid bodordin. 8. Hugsadu til bodordanna, og hatadu ekki náúngann; 9. til sáttmála ens ædsta og taktu ei eptir vanvitskunni. 10. Lát af kífni, þá minkar þú syndirnar; 11. því reidigjarn madur kveikir deilur, og syndarinn trublar vini, og stráir illmælum milli þeirra, sem lifa í fridi. 12. Þess meira eldsneytid er, því meir logar eldurinn; þess meira mannsins vald, því meiri mun hans reidi vera; og þess meiri audurinn, því hærra stígur reidin; og þess ákafari þrætan, því meir mun hún loga. 13. Brádrædis ágreiníngur, tendrar eld, og brádrædis kíf úthellir blódi. 14. Blásir þú í neystann, verdur hann ad báli; og spýtir þú á hann, kulnar hann út, og hvørttveggja kémur úr þínum munni.

15. Formælíng verdskuldar sá søgvísi og sá sem hefir tvær túngur, því mørgum, sem lifdu í fridi, hafa þeir fyrirfarid. 16. Sú þridja, túnga hefir mørgum á hrakníng komid, og rekid frá þjód til þjódar; 17. hefir rifid nidur fastar borgir, og kollkastad mestu manna húsum. 18. Sú þridja túnga hefir útrekid (kallmannlegar) duglegar konur, 19. og svift þær (øllum) þeirra afla. 20. Hvør sem á hana hlýdir, finnur einga ró, og býr ekki í fridi. 21. Svipuhøggid hleypir upp bengardi, en túngu høggid sundurmolar beinin. 22. Margir hafa fallid fyrir sverdseggjum, en ekki eins margir og fallnir eru fyrir túngunni. 23. Sæll er sá, sem varinn er fyrir henni, sem ekki verdur fyrir hennar ædi, sem ekki dregur hennar ok, og ekki verdur fjøtradur hennar fjøtrum! 24. því hennar ok er járnok, og hennar fjøtrar eru eir fjøtrar. 25. Ottalegur daudi er hennar daudi, og helvíti er þolanlegra enn hún. 26. Hún drottnar ei yfir þeim gudrækna, og þeir brenna ekki í hennar loga. 27. Þeir sem yfirgéfa Drottinn, komast á hennar vald, og í þeim logar hún og slokknar

V. 16. Sú þridja: adr: vond.

ekki. Lausri er henni sleppt móti þeim sem ljóni, og hún sundur tætir þá sem pardusdýr.

28. Sjá, gird um kríng eign þína med þyrnum, bind saman þitt silfur og gull. 29. En gjør líka reidslu og vog þínu tali og set hurd med loku fyrir þinn munn. 30. Gjæt þín ad þetta verdi þér ekki ad hrøsun, og þú fallir fyrir þeim, sem þig umsitur.

## 29. Kapítuli.

1. Hvør sem ydkar miskunsemi, sá lánar sínum náúnga; og hvør sem stydur med sinni hendi, sá heldur bodordin. 2. Lána þínum náúnga, þegar honum liggur á, og á hina sídunа, borga þínum náúnga aptur, á tilteknum tíma. 3. Haldtu ord, og vertu honum trúr, svo finnur þú, nær sem vera skal, þína nandþurft. 4. Margir álíta lán sem fund og gjøra þeim erfidt sem þeim hjálpa. 5. Þángad til madurinn fær þad, kyssir hann á hans hønd, og talar audmjúklega søkum peníngа náúngans. 6. En þegar aptur skal gjalda, skýtur hann á frest, greidir vidberjur, kénnir um kríngumstædunum. 7. Þó hann géti, kémur hann valla aptur med helfínginn, og reiknar þad sem fund (sínum lánardrottni); 8. en ef ekki, svo svíkur hann hann um peníngana, og hann hefir án orsaka fengid hann fyrir óvin. 9. Hann launar honum med blóti og skammaryrdum, og í stad vyrdíngar endurgéldur hann med smán. 10. Margir neisegja sakir (mannanna) vondsku, þeir kvída því ad féflettast ad naudalausu. 11. Hafdu samt þolinmædi vid þann sem bágt á, og drag þú hann ekki á velgjørdinni. 12. Hjálpa þeim fátæka, søkum bodordsins, og láttu hann ei fara tómhendtann frá þér í hans naudsyn. 13. Sjá þú heldur af peníngum sakir bródurs og vinar, og lát þá ei ridga og skémmast í grjóti. 14. Safna þér sjódi eptir bodi hins ædsta, þad mun færa þér meiri ágóda enn gullid. 15. Læstu velgjørdina inni í þinni fjárhirdslu, og hún mun frelsa þig úr allri óhamíngju. 16. Betur enn sterkur skjøldur, og betur enn øflugt spjót, 17. mun hún móti fjandmanninum fyrir þig strída.

18. Gódur madur geingur í borgun fyrir sinn náúnga, 19. og hvør sem alla feilni hefir mist, lætur hann eiga sig. 20. Gleim ei velgjørd borgunar mannsins; 21. því hann hefir vedsett sig fyrir þig. 22. Syndarinn féflettir sinn borgunarmann, 23. og sá sem hefir óþakklátt hjarta, lætur þann sitja í skadanum, sem honum hefir bjargad. 24. Ad gánga í borgum hefir margan ríkan féflett og hrakid híngad og þángad, sem bylgjur sjáfarins. 25. Volduga hefir þad ad heiman rekid, svo ad þeir hafa ordid ad hrekjast um kríng medal útlendra lýda. 26. Syndarinn steypir sér í ábyrgd, og sá sem færist mikid í fáng verdur fyrir hegníngu. 27. Hjálpa náúnga þínum eptir efnum; en sjá svo til, ad þú ekki steypir þér.

28. Høfud þørf líffins er vatn og braud, og klædnadur og hús sem skýlir nektinni. 29. Betra er líf hins fátæka undir fjala þaki, heldurenn dýrdleg máltíd í annara híbýlum. 30. Vertu ánægdur med lítid og mikid. Þad er slæmt líf ad gánga hús úr húsi. 31. Og þar sem madur er framandi má hann ekki munninum uppljúka. 32. Þú verdur ad veita mat og drykk þakkarlaust og heyra þaradauki bituryrdi: 33. „kom hér þú framandi madur, tilreid þitt bord, og hafir þú eitthvad, svo géf mér ad eta! 34. far burt framandi madur, og géf rúm ødrum álitlegri! bródir minn er kominn, eg þarf hússins vid!" 35. Óþolandi er slíkt manni, er tilfinníngu hefir, brixlyrdi fyrir herbergi, og illyrdi fyrir ad hafa þeigid lán.

## 30. Kapítuli.

*Um aga og mentun, heilsu og gladlyndi.*

1. Sá sem elskar sinn son, hefir hann á-
valt undir vendinum, til þess hann loksins hafi
gledi af honum. 2. Sá sem hefir son sinn
undir aga, mun gagn af honum hafa, og getur
medal kunníngja hrósad sér af honum. 3.
Hvør sem mentar sinn son, gjørir óvin sinn
øfundsjúkann, og í augsýn sinna vina getur
hann haft føgnud af honum. 4. Þó fadir
hans sé dáinn, er þad sem hann væri ekki
daudur; því hann hefir eptirskilid sína ímynd.
5. Medan hann lifdi, sá hann hann og gladdi
sig, og þegar hann dó, þurfti hann ekki ad
syrgja. 6. Hefndarmann eptirskilur hann sín-
um óvinum, og sínum vinum velgjørda um-
bunara. 7. Hvør sem hefir dáleti á syni sín-
um, bindur um hans sár, og vid hvørt hans
hljód kémst hann vid med sjálfum sér. 8. Ó-
taminn hestur verdur balstýrugur, og sjálfrádur
sonur verdur hugsunarlaus. 9. Hafdu blídlæti vid
þitt barn og þad mun hræda þig, leik vid þad
svo mun þad hryggja þig. 10. Gamna þér
ekki vid þad, svo þú syrgir ekki med því, og
verdir seinast ad nísta tønnum. 11. Lát þad
ei hafa sinn vilja í úngdæminu, og haldt því
ei til góda hviklyndid. 12. Beig þess háls í æsk-
unni, og gjør þess bak blátt medan þad enn nú
er lítid, svo þad ekki, þegar þad stálpast, verdi
þér óhlýdid. 13. Aga þinn son, og legdu þig til
vid hann, svo þú hafir ei mædu af hans skømm.

14. Betra er ad vera fátækur og heilbrigd-
ur og hraustur, heldurenn ríkur og undir eins
kvalinn á líkamanum. 15. Gód heilsa og
heilbrigdi er betra enn allt gull, og krøptugur
líkami betri enn mikil audæfi. 16. Eing-
in meiri audur er til enn heilbrigdi líkamans,
og einginn føgnudur tekur fram hjartans føgn-
udi. 17. Betri er daudi enn beiskt líf, enn
varanlegur sjúkleiki. 18. Ljúfmeti borid ad
lokudum munni — Réttir matar settir á grøf
(þess dauda). 19. Til hvørs gagns er god-
inu fórnin? því þad getur hvørki etid né likt
fundid. 20. Svo er þeim varid sem Herrann
ofsækir (med sjúkdómi). 21. Hann sjer þad
med augunum og andvarpar eins og géldíngur-
inn, sem fadmar meyuna og andvarpar.

22. Framsel ei sál þína hrigdinni og pín
ei sjálfann þig med þínum hugsunum. 23.
Gladværd hjartans er mannsins líf, og glad-
sinni mannsins er lífsins leingíng. 24. Elska
þitt líf, hugga þitt hjarta og haldt hrigdinni
lángt frá þér. 25. Hrigdin hefir margann
drepid og ekkért gagn er ad henni. 26. Øf-
und og reidi stytta dagana, og hrigdin kémur
med ellina fyrir tímann. 27. Hírt og gladt
hjarta lætur sér annt um sína rétti matar.

## 31. Kapítuli.

*Um aud og hans brúkun; samt um hegdan í sam-drykkjum.*

1. Svefnleysi sakir auds eydir líkamanum,
og umhyggja fyrir honum fælir burt svefnin.
2. Svefnleysis áhyggja fjærlægir blund, eins
og þúngur sjúkleiki fælir burt svefn. 3. Sá
ríki hefir erfidad og hrúgad saman aud, og
þegar hann er aflátinn, nýtur hann síns sæl-
lífis ríkuglega. 4. Sá fátæki hefir erfidad søk-
um skorts á lífsuppheldi, og þá hann hættir,
verdur hann þurfamadur. 5. Hvør sem elsk-
ar gullid, verdur ei frí vid ránglndi, og hvør,
sem leitar skadsemdar, mun nóg af henni fá.
6. Margir rata í slis søkum gullsins, og þeir
sáu sjálfir bersýnilega sína eydileggíngu. 7.
Þad er þeim ásteitíngartré, sem því færa fórn-
ir; og sérhvør heimskíngi verdur af því tekin
til fánga. 8. Sæll er sá ríkismadur sem finst
óstraffanlegur og sá sem ekki geingur eptir gulli;
9. Hvør er sá, ad vér vegsømum hann? því hann
hefir gjørt þad sem er addáanlegt, medal síns fólks.

10. Hvør er af enu sama prófadur og algjør fundinn? Hafi sá hrós! Hvør gat yfirtrodid, og yfirtród ekki, gjørt íllt, og gjørdi þad ekki? 11. Ohætt er audæfum þess (manns), og søfnudurinn mun kunngjøra hans velgjørdir.

12. Sitjir þú vid ríkuglegt bord, svo vertu ei gírugur, 13. og seg ekki: mikid er á þessu bordi! 14. Hugsa þú til þess, ad øfundsjúkt auga er skammarlegt. (15. Hvad er øfundsjúkara skapad enn augad? því hellir þad tárum nidur um allt andlitid). 16. Ekki skaltu rétta høndina þángad sem þad lítur, og þreyng þér ekki med því í fatid. 17. Mæl ósk þíns náúnga eptir þinni, 18. og í allri hegdan þá brúka yfirvegan. 19. Et sem madur þad sem fyrir þig verdur lagt, og hvoma ei í þig, svo þú verdir ei hatadur. 20. Hættu fyrstur fyrir hæversku sakir, og vertu ei ósedjanlegur, svo þú gefir einga ásteitíngu. 21. Þegar þú situr til bords med fleirum, svo réttu ei fyrstur út høndina. 22. Sidadur madur sjer lítid duga, og hann másar ekki á sinni sæng. 23. Hollur er svefn med hófsømum maga, þá er snemma á fætur farid, og hugurinn er þá heima. 24. Mæduleg andvaka, uppkøst og innantøkur (heimsækja) ofneytslu manninn. 25. Hafir þú verid neyddur vid átid, þá stattu upp, gakk burt, og tak inn uppsølumedal, svo hægir þér.

26. Heyr þú mig, barn, og forsmá mig ekki, og seinna muntu mín ord sønn finna. 27. Vertu kviklegur vid øll þín verk, svo mun eínginn sjúkleikur hitta þig. 28. Varirnar lofa þann sem veitir yfirgnæfanlegann mat, og hann er viss um ad fá hrós fyrir gódsemi. 29. Um þann sem sparar mat, møglar stadurinn, og ordrómur hans nídsku er sjálfsagdur.

30. Sýndu ei þína hreysti á víninu; því margann hefir vínid fellt. 31. Aflinn reynir járnid þá þad er herdt, eins vínid hjørtun í deilu ofláúnganna. 32. Vínid er manninum lífsstyrkíng, sé þad hóflega drukkid. 33. Hvada líf er þad, vanti vín? 34. Þad er vísulega mønnum til fagnadar skapad. 35. Vínid á réttum tíma drukkid til nægju, er føgnudur hjartans og unun sálarinnar. 36. Ofmikil víndrykkja aflar hjartans trega sakir ertni og óhappa. 37. Drykkjuskapur tendrar reidi heimskíngjans til módgunar, 38. rírir hans mátt og bakar áverka. 39. Bríxla ei þínum náúnga vid samdrykkju, og forsmá hann ei í hans føgnudi. 40. Seg honum ekkért hádyrdi, og gakk ei ad honum med skulda krøfu.

## 32. Kapítuli.

Sama efni.

1. Hafi menn gjørt þig ad forstødumanni (í géstabodi) þá vertu ei mikill á lopti; vertu medal þeirra sem einn af þeim; annastu þá og set þig svo! 2. þegar þú hefir algjørlega gégnt þínu embætti, svo set þig nidur, 3. svo þú hafir gledi af þeim, og fáir hjá þeim kransinn fyrir þá fallegu (nidurskipun) frammistødu. 4. Tala þú, gamli madur, því þér sæmir þad, med greind; 5. Samt skaltu ekki trubla saunglistina. 6. Hvar hún heyrist skaltu ekki þvætta, og trana ei fram þinni vitsku í ótíma. 7. Signets hríngur af rúbín í gullprýdi er samspil hljódfæra vid samdrykkju. 8. Signets hríngur úr smaragd í gull umgjørd, 9. er hljódfæra sláttur saungmanna vid sætt vín.

10. Tala, úngi madur, þegarþørf er, valla tvisvar, þegar þú ert spurdur. 11. Vertu gagnordur, med fáum (ordum) mikid. 12. Eins og sá sem veit, en þegir þó. 13. Medal gøfugra manna gjør þig ei þeim jafnann, og medan annar talar, þá skvaldra ekki mikid. 14. Eldíngin hradar sér undan þrumunni,

V. 14. Sneipunni; adr: feilnissæminni.

og hyllin geingur á undan sneipunni. 15.
Stattu upp í tíma og vertu ei hinn seinasti;
far heim til þín og drolla ekki. 16. Gamna
þér þar og gjør hvad þú vilt, en syndga ekki
med oflætis tali. 17. Og auk þessa þá lofa
þinn skapara, sem endurnærir þig med sín-
um gjædum.

18. Hvør sem óttast Drottinn, þiggur til-
søgn, og hvør sem snemma (hennar) leitar,
finnur (Guds) velþókknan. 19. Hvør sem
løgmálid ransakar, sá verdur af því mettad-
ur, en hvør sem hræsnar, þeim verdur þad ad
falli. 20. Þeir sem óttast Drottinn, finna
hid rétta, og láta réttar úrskurdi lýsa sem
ljós. 21. Syndarinn sneidir sig hjá ávítum
og eptir vild sinni finnur hann afbøtun. 22.
Hugsunarsamur madur forsmáir ekki eptirþánka;
23. en sá afundni og drambláti hefir eingann
ótta, jafnvel ei eptir hugsunarlaust verk. 24.
Gjør ekkért án yfirvegunar, ef þú breitir svo,
munt þú ekki ydrast þess. 25. Far ei þann
veg sem hætt er vid hruni, svo munt þú ekki
hrasa um grjót. 26. Trúdu ekki sléttum vegi,
og vara þig jafnvel á þínum børnum. 27.
Treystu þinni sál í hvørju verki, því líka þetta
er vardveitsla bodordanna. 28. Hvør sem
trúir løgmálinu, géfur gaum bodordunum: og
hvør sem treystir Drottni, sá mun ei verda
fyrir skada.

## 33. Kapítuli.

Ýmisleg sannmæli.

1. Sá sem óttast Drottinn, ratar ekki í
neitt íllt; heldur verdur hann aptur frelsadur
þá hann freistast. 2. Vitur madur hatar
ekki løgmálid; en hræsnarinn er sem skip í
stormi. 3. Hygginn madur trúir løgmálinu,
og løgmálid er honum áreidanlegt eins og
(Urim og Tumim) sannleikans úrskurdur. 4.
Undirbú talid, lát þig svo heyra; safna þér fród-
leik, svara sídan. 5. Hid innra hjá báranum er
sem vagnhjól, og hans hugsanir eins og ás sem
snýst. 6. Eins og stódhestur, svo er hædnis-
fullur vinur: hann hneggjar undir hvørjum
sem á honum situr.

7. Hvar fyrir hefur einn dagur yfirburdi
yfir annann, þegar þó ljós sérhvørs dags í
árinu kémur frá sólinni? 8. Vísdómur Drott-
ins hefir þá adgreint og hann nidurskipadi
margslags tímum og hátídum. 9. Nokkra hóf
hann og helgadi, og ødrum bætti hann vid
daga tøluna. 10. Allir menn eru líka af
jørdu, og Adam var skapadur af jørdu. 11.
En eptir fyllíngu síns vísdóms adgreindi hann
þá, og nidur skipadi þeirra kjørum margvís-
lega. 12. Suma blessadi hann og upphóf,
og nokkra helgadi hann, og tók í nánd vid
síg. Ødrum bølvadi hann og nidurlægdi og
steypti þeim frá þeirra stad. 13. Eins og
leir í leirsmidsins hendi, og allir hans vegir
eptir hans velþókknan; 14. svoleidis eru
mennirnir í hendi þess sem þá gjørdi, hann
útbítir þeim eptir sínum dómi. 15. Þad
vonda er gagnvart enu góda, daudinn gagn-
vart lífinu, svoleidis þeir gudræknu gagnvart
syndurunum. 16. Og álít þú þannig øll
verk ens ædsta; hvørjir tveir hlutir, einn á
móti ødrum.

17. Eg vaknadi seinastur, eins og sá sem
samanles (vínber) eptir vínyrkjumenn, komst eg
fyrir herrans blessan á undan ødrum, og fyllti
sem vínyrkju madur vínpressuna. 18. Sjá-
id! ad eg hefi ekki unnid fyrir mig einann,
heldur fyrir alla þá sem uppfrædíngar leita.
19. Heyrid mig, yfirmenn fólksins, og takid
eptir, forstødumenn safnadarins. 20. Géf
hvørki syni, né konu, hvørki bródur né vin,
vald yfir þér medan þú lifir, og géf eingum
ødrum þitt góts, svo þig ydri þad ekki seinna,
og þú verdir ad beidast þess aptur. 21.
Medan þú lifir og andar, svo sel þig eingum

manni. 22. Því það er betra að þín börn biðji þig, heldurenn að þú mænir uppá hendur sona þinna. 23. Í öllum þínum efnum þá vertu sjálfráður, lát ekki skugga koma á þína sæmd. 24. Á enda þinna lífdaga, og á dauðastundunni skaltu skipta þínum eigum.

25. Fóður og prik og byrði tilheyrir asnanum, brauð og agi og erfiði þrælnum. 26. Haldtu þrælnum til vinnu, svo hefir þú ró; látir þú hann hafa fríar hendur, svo leitar hann frelsis. 27. Ok og bönd beigja hálsinn; illvirkur húskarl á að hafa refsíng og píntíngar. 28. Legg á hann erfiði, svo hann gángi ekki iðjulaus; 29. því iðjuleysi kénnir margt íllt. 30. Set hann í vinnu, eins og honum sæmir; og gégni hann ekki, þá gjörðu þýngri hans fjötra. Vertu samt ekki offrekur við nokkuð hold, og gjör ekkért án greindar (dóms). 31. Hafir þú þræl, þá sé hann (þér) sem þú sjálfur, því þú hefir hans með blóði aflað (í stríði). Hafir þú þræl, þá far með hann sem með sjálfan þig, því þú munt þurfa hans við, sem þinnar egin sálar; 32. farir þú illa með hann, tekur hann sig til og strýkur. Hvar ætlar þú að leita hans?

## 34. Kapítuli.

Efnið sem fyrri.

1. Sá fávísi maður elur hjá sér fánýta og svikula von, og draumar gjöra heimskíngja fleyga. 2. Hvör sem géfur gaum draumum, hann er eins og sá sem vill grípa skugga og höndla vindinn. 3. Sjón drauma er þetta andspænis þessu, (eitt andspænis öðru), gagnvart andlitinu er mynd andlitisins (í speigli). 4. Gétur úr óhreinu nokkuð hreint orðið, og gétur úr lýginni nokkuð satt orðið? 5. Spásagnir og útleggíngar fugla flugs og draumar eru hégómi og hjartað eingist (af þeim), eins og sú jóðsjúka. 6. Géf þeim eingan gaum, nema svo sé, að sá æðsti sendi þá til refsíngar. 7. Margir verða af draumum sviknir, og þeir urðu tældir, af því þeir reiddu sig á þá. 8. Án lýga verður lögmálið uppfyllt, og vitskán er fullkomnun áreiðanlegum munni.

9. Uppfræddur maður skilur margt, og reyndur maður veit að tala með viti. 10. Sá veit lítið, sem ekki er prófaður; 11. en sá sem víða hefur farið, hann er fjölhæfur. 12. Margt sá eg á mínu flakki, og mín þekkíng er meiri enn mín orð. 13. Opt komst eg í dauðans hættu, og frelsaðist einmidt sökum þess. 14. Þeir halda lífi, sem óttast Drottinn, 15. því þeir vona á þann, sem þá frelsar. 16. Hvör sem óttast Drottinn, þarf ekki að hræðast né huglaus verða; því Hann er hans von. 17. Sæl er sál þess (manns), sem óttast Drottinn. 18. Hvörjum treystir hann, og hvör er hans stoð? 19. Augu Drottins horfa á þá sem hann elska. Hann er öflug stoð, og sterk stoð, vörn við glóð og middegishita, hlíf við hrösun og hjálp við biltu. 20. Hann hressir hugann og upplýsir augun; hann géfur heilbrigði, líf og blessan.

21. Hvör sem offrar rángfeingnu fé, þess gáfa er gisleg; 22. en gis hinna guðlausu útvegar ekki velþóknan. 23. Sá æðsti hefir einga velþóknan á gáfum þeirra guðlausu, og hann fyrirgéfur ekki syndir vegna mikilla fórna. 24. Hvör sem framber fórn af eigum hinna fátæku er, eins og sá, sem slátrar syninum í augsýn föðursins. 25. Brauð hinna nauðstöddu er líf hinna fátæku; hvör sem því rænir er manndrápari. 26. Sá deyðir náúngann sem sviptir hann lífs uppheldi; 27. og sá úthellir blóði sem géldur ei daglaunamanninum hans laun.

28. Einn byggir, annar rífur niður, hvað hafa þeir fyrir, nema erfiðið. 29. Einn blessar, annar formælir: hvörs raust mun Drottinn heyra? 30. Hvör sem þvær sér, eptir að

hann hefir snortid daudann (mann) og snertir hann svo aptur: Hvad hefir hann áunnid med sínum þvotti? 31. Eins er sá madur sem fastar, sökum sinna synda, fer sídan og adhefst (gjörir) hid sama. Hvör mun heyra hans bæn og hvad hefir hann áunnid med því ad audmýkja sig?

## 35. Kapítuli.

Um þá fórn sem Gudi þóknast.

1. Hvör sem lögmálid heldur, sá fórnar ríkuglega. 2. Sá sem géfur gaum bodordunum, framber þakkarfórn. 3. Sá sem þakkar Gudi, framber matoffur; 4. og sá sem velgjörd veitir, þakkarfórn. 5. Velþóknan Drottins er, ad menn láti af illu, og forlíkun, ad hætta á ránglæti. 6. Kom ekki tómhendtur fyrir Drottins auglit. 7. Slíkt allt, fyrir sakir bodordsins. 8. Fórn hins réttláta gjörir altarid feitt, og hennar ilmur (kémur) fyrir Drottinn. 9. Fórn hins réttláta manns er þægileg, og endurminníng hennar gleymist ekki. 10. Heidra Drottinn med gódu auga (örlæti), og vertu ei nídskur á frumgróda þinna handa. 11. Hírga þitt yfirbragd vid hvörja gáfu, og helga tíundirnar med fögnudi. 12. Géfdu þeim ædsta, eptir sem hans gjöf er, og eptir þínum handafla, med gódu auga. 13. Því Drottinn er sá sem umbunar, og sjöfaldlega mun hann þér þad umbuna.

14. Ekki skaltu reyna til ad múta (Drottni), hann tekur ekki vid (mútu). 15. Og treystu ei ránglátri fórn; því Drottinn er dómari og hjá honum gildir einginn manna munur. 16. Hann lætur manna mun ekkért gilda gégn þeim fátæka, og heyrir bæn þess sem óréttinn þolir. 17. Hann forsmáir ei bæn þess födurlausa, né ekkjunnar, þá hún úteys sinni umkvörtun. 18. Fljóta ei tár ekkjunnar nidur eptir kinnunum, 19. og áklaga þau ekki þann sem þau útpressadi?

20. Sá sem þjónar Gudi velþóknanlega, mun verda medtekinn og hans bæn kémur upp til skýanna. 21. Bæn ens volada þreyngir sér í gégnum skýin, og hann (sá voladi) huggast ekki fyrr enn hún nálgast (Gud) og hann lætur ei af fyrr enn sá ædsti lítur þar á; og hann mun rétt dæma og láta dóminum verda framgeingt (dóm gjöra). 22. Og Drottinn mun ekki tefja né bidlund hafa vid þá, þángad til hann sundurmer lendar hinna ómiskunsömu. 23. Og hann leggur hefnd á þjódirnar, þángad til hann hefir tortínt öllum fjölda þeirra grimmu og brotid sprota enna ránglátu; 24. þángad til hann hefir goldid manninum eptir hans verkum, og verkin mannanna eptir þeirra hugsunum (umbunad). 25. Þángad til hann hefir dæmt dóm síns fólks og gladt þá med sinni miskun. 26. Hagkvæm er miskun hans á neydarinnar tíd, eins og regnský í þurki.

## 36. Kapítuli.

Bæn.

1. Miskuna oss Drottinn, Gud yfir öllu, og lít nidur! 2. Lát ótta fyrir þér koma yfir allar þjódir. 3. Lypt upp þinni hendi móti annarlegum þjódum, og lát þær kénna á þínu veldi! 4. Eins og þú ert helgadur fyrir þeirra augum vor á medal, svo gjör þig vegsamlegann á þeim, fyrir vorum augum, 5. ad þeir þekki þig, eins og vér höfum þekkt, ad ekki er Gud til nema þú, Drottinn! 6. Endurnýa táknin, gjör aptur furduverkin; 7. gjör vegsamlega þína hönd og þinn hægri arm! 8. Vek þitt géd, úthell þinni reidi! 9. Tortín mótstandaranum, sundurmer óvininn. 10. Hrada (hegníngar) tídinni, og minnstu eidsins, og þín stórvirki skulu vídfrægjast! 11. Í reidi eldsins farist sá sem sér hefir bjargad, og undirþrykkend-

ur þíns fólks finni gløtunina! 12. Sundurmola høfud óvinanna foríngja, sem segja: einginn er madur nema vér! 13. Safna øllum Jakobs ættkvíslum, og lát þær vera þína eign, eins og í upphafi!

14. Miskuna þig, Drottinn! yfir þitt fólk, sem nefnt er eptir þínu nafni, yfir Israel, sem þú mattir jafnt vid frumgétinn son! 15. Miskuna þig yfir stad þíns helgidóms, Jerúsalem, borg þíns bústadar! 16. Fyll Síon med lofgjørd þinna fyrirheita, og þinn lýd med þínu hrósi. 17. Géf vitnisburd þinni skøpun (Israelsfólki) frá upphafi, og uppfyll spádóma í þínu nafni (bodada). 18. Umbuna þeim sem þér treysta, og lát (menn) trúa þínum spámønnum! 19. Heyr, Drottinn! bæn þeirra sem þig ákalla, eptir blessan Arons yfir þínum lýd, svo ad allir sem á jørdu búa, kannist vid, ad þú, Drottinn! ert eilífur Gud.

20. Maginn tekur vid allshháttar fædu; þó er ein fæda betri enn ønnur. 21. Gómurinn finnur smekkinn af kjøti villidýrsins: eins sá skinugi af lygatali. 22. Prettvíst hjarta ollir sorg, en vel reyndur madur veit ad launa honum þad. 23. Konan tekur øllu karlkyni, en ein dóttir er betri enn ønnur. 24. Konunnar fegurd hýrgar andlitid, og yfirgnæfir alla girnd mannsins. 25. Sé á hennar túngu miskun (elska) og hógværd, þá er hennar madur ædri mannanna sonum. 26. Sá sem eignast konu, birjar ad eignast hjálp sér sambodna, og stod sinnar hvíldar. 27. Þar sem eingin girdíng er, verdur eignin eydiløgd, og þar sem (húsmódir) er ekki, þar andvarpar ferdamadurinn. 28. Því hvør trúir vel útbúnum reifara, sem flakkar úr borg í borg? Sømuleidis (trúir einginn) þeim manni sem hvørgi á heima, og leitar gistíngar þar sem hann kvøldar uppi.

# 37. Kapítuli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Sérhvør vinur mun segja: „Eg er líka hans vinur"; en margur vinur er ad eins vinur ad nafninu. 2. Er þad ekki daudans gremja þegar stallbródir og vinur verdur ad ovin? 3. O, vonda hugarfar! hvadan hefir þú oltid til ad þekja jørdina med falsi? 4. Félaginn gledur sig med vininum í føgnudinum, en á neydarinnar tíd stendur hann fjærri. 5. Félaginn erfidar med vininum sakir búksins, í augsýn bardagans mun hann taka skjøldin. 6. Gleym ekki vininum í þínu hjarta, 7. og vertu ekki hans óminnugur í þinni velmegan.

8. Sérhvør rádgjafi hefir ráð á lopti; en margir rádleggja sér í hag. 9. Vara þú þig á rádgjafanum, og grenslast eptir því fyrir fram, hvør hans hagur er; því hann mun ráda sér sjálfum best: ad hann ekki kasti a) á þig hlutfalli, 10. og segi vid þig: „þinn vegur er gódur", standi svo gagnvart, til ad sjá, hvad þér vill til. 11. Rádfær þig ekki vid þá, sem gjóta til þín hornauga, og fel þín áform fyrir þeim sem øfunda þig. 12. (Rádfær þig ekki) vid konu um þá (konu) sem hún metst vid; ekki vid ragan mann um stríd, ekki vid kaupmann um verslun, né vid kaupanda um sølu; 13. ekki vid þann nídska um þakklátsemi; ekki vid miskunarlausan um gódgjørdasemi; ekki vid letíngjann um allslags størf, 14. ekki vid heils árs daglaunamann um þad ad ljúka vid verkid; ekki vid latan þræl um mikla vinnu, — géf eingum þessara gaum í nokkurri rádaleitan. 15. Þarámót skaltu stødugt hafa møk vid gudrækinn mann, sem þú þekkir ad því, ad hann gjætir bodordanna, 16. sem í sínu sinni er eptir þínu, og aumkast yfir þig, þegar þú rasar. 17. Og set fast rád þíns eigin hjarta, því einginn er þér trúrri enn þad. 18. Því sál-

V. 9. *a.* Láti eiga undir hvørnig þér reidir af.

ir mannanna plaga stundum fleira ad kunngjöra, helldurenn sjö vardmenn sem sitja á verdi. 19. Og auk alls þessa, þá bid hinn ædsta, ad hann greidi þinn veg í sannleika. 20. Virjun sérhvörs verks sé tal (yfirvegan), og á undan hvörju verki gángi rádagjörd. 21. Spor sinnis umbreitíngar (géfast), fjórir hlutir koma í ljós: gott og íllt, líf og daudi, og þessu rædur túngan óaflátanlega. 22. Til er fjölhæfur madur, margra frædari, en sjálfum sér gétur hann ekki ordid ad lidi. 23. Mönnum verdur illa vid þann sem (einasta) er vitur í ordum: sá madur verdur þurfandi allrar fædu. 24. Því honum var ekki lánud nád af Drottni, sökum þess hann er sviptur öllum (sönnum) hygg indum. 25. Margur er vitur fyrir sjálfann sig, og ávextir hyggindanna í hans munni, eru áreidanlegir. 26. Vitur madur uppfrædir sitt fólk, og ávextir hans hygginda eru áreidanlegir. 27. Vitur madur verdur blessan hladinn, og allir sem hann sjá, prísa hann sælann vera. 28. Mannsins lífdagar eru taldir, en Ísraels lífdagar eru óteljanlegir. 29. Vitur madur aflar sér tiltrúar hjá sínu fólki og hans nafn lifir ad eilífu.

30. Barn! prófa sál þína í þínu lífi og sjá, hvad henni er skadlegt, og leyf henni þad ekki. 31. Því öllum er ekki allt þénanlegt, og sérhvör sál hefir ekki velþóknan á öllu. 32. Vertu ei óséðjanlegur af öllu ljúfmeti, og rádstu ei gírugur ad fædunni. 33. Því eptir mikid át kémur erfidleiki, og óhóf leidir til uppkasta og nidurgángs (kólera). 34. Af óhófi hafa margir dáid; en sá sem gjætir sín, leingir sitt líf.

## 38. Kapítuli.

Um nú synduarlaus sannmæli.

1. Heidra læknirinn sakir þarfarinnar med tilhlýdilegum heidri; því Drottinn hefir líka skapad hann. 2. Því frá þeim ædsta kémur lækníng, og kóngarnir senda honum gáfur (læknirnum). 3. List læknisins upphefur hans höfud, og gjörir hann addáanlegan framm fyrir höfdíngjum. 4. Drottinn lætur læknismedöl spretta á jördinni, og sá skinsami forsmáir þau ekki. 5. Sætnadi ekki vatnid af trénu, til þess ad hans máttur þekktist? (2 Msb. 15, 25). 6. Og hann gaf mönnum þekkínguna, til þess ad vídfrægja sig í sínum dásemdarverkum. 7. Med þeim læknar hann, og burt tekur hans (mannsins) erfidleika. 8. Apotekarinn gjörir af þessu blöndu, og aldrei fullkærir hann sitt verk, og velvegnan útbreidist frá honum um alla jördina.

9. Afræk ei þetta, barn, í þínum sjúkleika, heldur bid Drottinn, og hann mun lækna þig. 10. Lát af misgjördum og bæt þína breytni, og hreinsa þitt hjarta af allri synd. 11. Framber sætan ilm og matoffur og hveitimjöl, og feita fórn, eins og þú værir sáladur. 12. Og lát læknirinn koma, því Drottinn hefir hann líka skapad og lát hann ekki frá þér, því þú þarft hans vid. 13. Þar géfast tímar á hvörjum þad heppnast þeirra höndum. 14. Því líka bidja þeir Drottinn ad hann láti þeim (sér) takast ad útvega svíun og lækna til leingíngar lífsins. 15. Sá sem syndgar fyrir sínum skapara, sá falli í læknisins hendur!

16. Barn, úhell tárum yfir þann andada og birja harmaklögun eins og útaf miklum missir! bú um hans lík eins og vera ber, og vertu ei hirdulaus um hans greftrun. 17. Grát beisklega, kveina kappsamlega, og harma samkvæmt hans verdugleika, 18. einn eda tvo daga, sakir ills umtals: Hrestu sídan af þér harminn. 19. Því af harmi kémur daudinn, og hjartasorg beigir kraptinn. 20. Med líkförinni fer og sorgin framhjá og hjartans ángurværd a). 21. Ofursel ei hjarta þitt hrigdinni, hrind henni frá

V. 20. *a.* Eptir ord: líf þess fátæka í hjartanu.

þér, med því ad hugsa til þess seinasta. 22. Gleym þessu ei, því ekki er apturkoma. Honum (sem dáinn er) gétur þú ekki hjálpad, en gjørt skada sjálfum þér. 23. Hugsadu til hans afdrifa; því þau eru sem þín: í dag mér, á morgun þér. 24. Vid hvíld hins dauda lát og þína endurminníng hvíla og hugga þig eptir hann, þá hans andi er skilinn vid.

25. Vitska hinna skriptlærdu (dafnar) í sælu nædi, og sá verdur vitur á hvørjum létt er størfum. 26. Hvørnig gétur sá vitur ordid sem stýrir plógnum, og stærir sig af broddstafnum, rekur nautin og fæst vid þeirra verk, og hvørs tal er ad eins um úngneyti? 27. Sínu sinni stefnir hann einasta til þess ad plægja, og sinni áhyggju til fódurs handa nautunum. 28. Svo er og hvør húsa smidur og verkmeistari, sem lifir eins nótt sem dag; sá sem stíngur signets hríngi; þesshátttar manns stødug vidleitni er ad búa til margslags myndir; sínu sinni snýr hann til þess ad gjøra eptirmyndina líka, og vinnur seint og snemma ad því, ad ljúka vid verkid. 29. Sømuleidis smidurinn sem situr vid stedjann og géfur gaum járnsmídinu. Eldgufan eydir hans líkama, og hann strídir vid smidju hitann. 30. Hamars høggid deyfir hans eyra, og hans augu stara á mynd þess, er hann smídar eptir. 31. Allann hug hefir hann á því, ad ljúka vid verkid; og seint og snemma situr hann vid þad ad klára verkid med nettleika. 32. Eins leirsmidurinn, sem situr vid sína vinnu, og snýr hjólinu med sínum fótum; sá sem er í sífeldri áhyggju, søkum síns verks, og hvørjum afmælt er hans verk. 33. Med sínum høndum myndar hann leirinn, ad því sem er fyrir fótunum, beigir hann sinn krapt. 34. Huga sínum snýr hann til þess ad húda leirinn til fulls, og seint og snemma, er hann ad því, ad hreinsa ofnin.

35. Allir þessir reida sig á sínar hendur, og hvør einn sýnir list sína á sínu verki. 36. An þeirra verdur eingin borg bygd, og eingin gétur þar gist né þar um geingid. 37. En í søfnudinum skara þeir ekki fram úr, sitja ekki í dómarasæti, ransaka ekki løgbókina, 38. og ekki géta þeir heldur auglýst réttindi og réttvísi; og þeir finnast ei (vinna) ad spakmælum. 39. En þeir festa skøpun aldarinnar, og þeirra laungun midar til listarinnar verka.

## 39. Kapituli.

1. Odruvísi (stendur á fyrir hvørjum þeim), sem þarad snýr sínu sinni, ad yfirvega løgmál ens ædsta. Hann grenslast eptir vitsku allra þeirra gømlu, og ígrundar rækilega spádómana. 2. Hann tekur eptir tali nafnfrægra manna, og þreyngir sér inní silsni spakmælanna. 3. Hann leitar skilníngs á óljósum líkíngum, og hugsar um gátur eptirlíkínganna. 4. Hjá høfdíngjum þjónar hann, og fyrir landstjórnendur kémur hann. 5. Hann fer um lønd framandi þjóda; því gott og íllt hefir hann reynt. 6. Hann lætur hjarta sitt snemma vera hjá Drottni sínum skapara, og bidur þann ædsta. 7. Hann lýkur upp sínum munni í bæninni, og bidur (gott) fyrir sínar syndir.

8. Efad Drottinn sá mikli vill, verdur hann fylltur skilníngsins anda. 9. Hann lætur út streyma vitskunnar tal, og í bæninni prísar hann Drottinn. 10. Hann géfur góda stefnu sínu rádi og viti, og hugsar um hans leyndardóma. 11. Hann meddeilir uppfrædíngu síns lærdóms, og hrósar sér af sáttmálsløgum Drottins. 12. Margir lofa hans þekkíngu og hún mun aldrei undir lok lída; 13. Hans endurminníng deyr ekki, og hans nafn lifir frá kyni til kyns. 14. Þjódirnar tala um hans speki, og søfnudurinn kunngjørir hans

lof. 15. Nái hann nokkrum aldri, eptirskilur hann meira nafn enn þúsund (aðrir) og þó hann gángi til hvíldar, eykur hann það.

16. Enn nú vil eg mínar hugsanir frammæla, því eg er fullur, sem fullt túngl. 17. Heyrið mig, þér guðrækni børn, og vaxið sem rós, gróðursett við læk! 18. Gefið ilm af yður sem reykelsi og blómgist sem lilja: útbreiðið ilm, 19. og sýngið lof, vegsamið Drottinn fyrir øll hans verk! víðfrægið hans nafn, 20. og þakkið honum með lofgjørð, með saung yðar vara og hørpum, og segið í yðar lofgjørð svo:

21. Øll Drottins verk eru mikið góð, og allt hvað hann býður, það skéður á sínum tíma. (22. Menn géta ei sagt: hvar til er þetta? hvar til skal það?) því hvað eina heimtast á sínum tíma. Fyrir hans orð stóð vatnið sem veggur, og fyrir boð hans munns støðvaðist vatnið. 23. Að hans boði skéður allt sem honum þókknast, og einginn er sá sem rírt géti hans hjálp. 24. Øll manna verk eru honum opinber, og ekkért gétur falist fyrir hans augum. 25. Hann sjer frá eilífð til eilífðar, og honum þikir ekkért furðanlegt. 26. Menn géta ekki sagt: „hvað er þetta? hvar til skal þetta? því allt er skapað til hans þarfar.

27. Hans blessan hylur þurrlendið sem vatnsfall og vøkvar (það) eins og flóð. 28. Aptur á mót erfa þjóðirnar hans reiði, eins og hann umbreitir vatni í saltauðn. 29. Hans vegir eru þeim guðrækni sléttir, en syndurum ógreiðir. 30. Gott er þeim góða skapað frá upphafi, þar á mót íllt þeim illu. 31. Høfuð nauðsyn fyrir manna líf er: vatn, eldur og járn og salt og hveitimjøl og hunáng og mjólk, vín og viðsmjør og klæðnaður. 32. Allir þessir hlutir eru þeim guðrækni til gagns, en umbreitast þar á mót syndurum til skaða. 33. Til eru andar sem skapaðir eru til hefndar og með sínu géði herðtu þér refsínguna. 34. Á gløtunarinnar tíma beita þeir sínum krapti og sefa reiði þess sem þá skapaði. 35. Eldur og hagl og húngur og drepsótt er allt skapað til refsíngar. 36. Tønnur rándýrsins og skorpíónar og høggormar og sverðið, sem tekur hefnd út á þeim guðlausu til tjóns; 37. allt þetta fagnar af hans boði, og er á jørðunni reiðubúið þegar hann þarf þess við, og yfirtreður ekki, á sínum tíma, hans boð.

38. Því hefi eg frá upphafi staðfastur verið, og hefi um það hugsað og ritað eptir mig látið. 39. Øll Drottins verk eru góð, gjøra allt gagn á sínum tíma. 40. Og menn skulu ekki segja: þetta er lakara enn hitt; því allt reynist gott á sínum tíma. 41. Og sýngið nú með øllu hjarta og munni lofsálm og vegsamið Drottins nafn.

## 40. Kapítuli.

Ýmislegar hugleiðíngar.

1. Mikil armæða hvílir á hvørjum manni, og þúngt ok liggur á Adams sonum, frá þeim degi er þeir fæddust af móðurlífi, allt til þess dags, þá þeir hverfa aptur til móður allra. 2. a) Þeirra hugsanir og hjartans ótta — eptirbiðarinnar áhyggja og dauðadagurinn. 3. Allt frá þeim sem á háséti situr í dýrð, til hins er niðurbeigður er í duft og øsku; 4. frá þeim sem ber purpura og kórónu, allt til þess sem skýlir sér með striga, 5. er (hjá øllum) reiði og øfund, órói og hræðsla og ótti fyrir dauðanum, grimd og þrætur; og á hvíldartímanum í rúminu truflar draumur hans (mannsins) þekkíngu. 6. Lítið, jafnvel ekkért (er) í ró, og frá því í draumi, eins og á degi þá vørð skal halda, óspekist hann af sjón síns

V. 2. a. Vantar líklega í: Ekki um að tala; aðr: hvað áhrærir þeirra o. s. fr.

hjarta, eins og sá sem flúið hefir úr stríði. 7. Á sínum endurlausnardegi vaknar hann og verdur hissa á sinni einkisverdu hrædslu. 8. Hjá øllu holdi, frá manninum til fénadarins (er þetta svo) en hjá syndaranum sjøfaldt. 9. Því daudi og blódsúthellíng og þráttan og sverd, óhøpp, húngur og tjón og plága, 10. allt þetta er gjørt fyrir þá gudlausu, og sakir þeirra kom vatnsflódid. 11. Allt sem af jørdu er, hverfur aptur til jardar, og hvad af vatni er, rennur aptur í sjóinn.

12. Allar gáfur og rángfeingid fé hverfur, en dánumennska varir eilíflega. 13. Audæfi gudlausra þorna upp sem lækur, og eins og mikil þruma kvedur vid í regninu. 14. Þá hann upplýkur sínum høndum, mun hann gledjast; svo munu yfirtrodslumenn hverfa til tjóns. 15. Afkomendur enna gudlausu útbreida ei margar greinir, og óhreinar rætur standa á klettasnøs. 16. Þeir eru mírgresi vid øll vøtn og árbakka, sem slegid verdur á undan øllu (ødru) grasi. 17. Gódgjørdasemi er sem blessadur grasgardur og miskunsemin varir eilíflega.

18. Líf hins nægjusama (og) erfidismannsins er indælt, en fremri hvørutveggjum er sá sem fésjód finnur. 19. Børn og borgar bygging afla varanlegs nafns; en óadfinnanlega konu er meir ad meta. 20. Vín og saunglist gledur hjartad; en elska til vísdóms er betri enn hvørttveggja. 21. Hljódpípur og hørpur hljóma elskulega; en vinsamlegt tal er betra enn hvørttveggja. 22. Fegurd og frídleiki veitir unadsemd þínu auga, en hid græna sád enn meiri enn hvørttveggja. 23. Vinir og félagar adstoda hvør annan, þá tími er til, en madur og kona enn framar enn hvørutveggju. 24. Brædur og hjálp á neydarinnar tíd; en betur enn hvørttveggja, bjargar miskunsemin. 25. Gull og silfur halda manni á føstum fæti; en gott rád er meir metid enn hvørttveggja. 26. Audur og styrkleiki hefja hugann; en ótti Drottins meir enn hvørttveggja. 27. Ekki er mínkun ad ótta Drottins, sá sem hefir hann, þarf ekki lids ad leita. 28. Ótti Drottins er sem blessadur lystigardur, og ædstu prýdi er hann þakin. 29. Barn, lif þú ekki stafkallslífi; betra er ad deya enn snýkja. 30. Þess manns líf er ekkért líf, sem litast um eptir annara matbordi; hann óvirdir sig fyrir annara mat. 31. En sá hyggni og velsídadi madur varar sig á því. 32. Í munni þess óskammfeilna er sníkjubraudid sætt; en í hans búk brennur þad sem eldur.

## 41. Kapituli.

Sundurlaus sannmæli.

1. Ó daudi! hvørsu beiskt er þín tilhugsan þeim manni, sem nýtur í ró sinna eigna, þeim manni sem lifir áhyggjulaus, 2. þeim sem vel vegnar í øllum hlutum, og sem enn nú er fær um næríngu til sín ad taka! 3. Ó daudi! æskilegur er þinn dómur þeim þurftuga, 4. þeim hruma og aldrada, þeim sem er í mørgum raunum, þeim vonlausa, sem hefir mist þolgædid! 5. Hrædstu ekki daudans dóm! Hugsadu til þeirra sem á undan voru og eptir koma: þessi dómur er af Drottni lagdur á allt hold. 6. Og hvad mælist þú undan vilja hins ædsta? Veri þad tíu, veri þad hundrad, veri þad þúsund ár. 7. Í undirheimum er eingin kløgun yfir lífinu.

8. Vidbjódsleg børn verda syndaranna børn, og þau sem gánga í gudlausra bústødum. 9. Arfur syndaranna barna hverfur og hjá þeirra kyni vidvarir skømmin. 10. Børnin gefa brixlyrdi gudlausum fødur, því søkum hans eru þau forsmád. 11. Vei ydur gudlausu menn, sem horfid hafid frá løgmáli ens ædsta. 12. Þegar þér fædist, svo fædist þér til bølvunar; og þegar þér deyid, svo verdid þér bølvunarinnar

hlutskipti. 13. Allt af jørdu, hverfur aptur til jardarinnar; eins fara þeir gudlausu frá bølvun til tortíníngar. 14. Mannanna þjáníng vidvíkur þeirra líkømum, en nafn syndaranna sem ekki er gott mun verda afmád. 15. Haf þú áhyggju um nafn þitt, því þad geymist þér betur enn þúsund stórir fjársjódir af gulli. 16. Hægt er ad telja daga hins góda (sæla) lífs, en gott nafn varir eilíflega.

17. Børn, fylgid mentuninni í fridi (velgeingni)! En falinn vísdómur og ósýnilegur sjódur, hvad notar þetta hvørttveggja? Betri er sá madur sem felur sína heimsku, en sá madur sem felur sína vitsku. 18. Feilid ydar því eptir mínu ordi! 19. Því ad fordast sérhvørja feilni er ekki gott, og ekki er henni ætíd med sanni hrósad. 20. Skammist ydar fyrir lauslæti hjá fødur og módur, og fyrir lýgi hjá furstum og høfdíngjum; 21. hjá dómara og yfirbodara fyrir misgjørd; hjá søfnudinum og fólkinu fyrir lagabrot; 22. hjá kunníngjum og vinum fyrir ránglæti; og fyrir þjófnad á þeim stad, hvar þú átt heima; og frammi fyrir sannleika Guds og sáttmálans; 23. og fyrir þad ad stydja alboganum á braudin; 24. fyrir sérdrægni (hnupl) í útlátum og tekjum; fyrir þad ad taka ei undir, þá ydur er heilsad; 25. fyrir þad ad stara á skjækju; og snúa andlitinu frá ættíngja; 26. fyrir þad, ad draga í hlé part og gjøf og ad vyrda fyrir þér gipta konu; 27. fyrir þad, ad hænast ad ambátt annars manns, og kom þú ei nærri hennar sæng, 28. fyrir meidandi tal hjá vinum, og hafir þú eitthvad gefid, þá brixla ekki um þad, 29. fyrir þad ad hafa eptir, þad sem þú hefir heyrt og ad uppljósta leyndarmálum: þá ert þú réttilega feilinn og finnur hylli hjá øllum mønnum.

## 42. Kapítuli.

1. Fyrir þessa hluti skaltu ekki skammast þín og syndga ekki sakir manngreinar álits: 2. fyrir løgmálid og sáttmála hins ædsta (skaltu ei skammast þín) né fyrir þad rétta, svo ad þú fríkénnir þann gudlausa; 3. fyrir málefni félaga og ferdamanna, fyrir afhendíngu arfs til vina; 4. fyrir nákvæmni í mælir og vigt; fyrir mikinn eda lítinn feing, 5. fyrir ábata í kaupum og sølum, fyrir strángan barn aga, fyrir þad ad slá blódugt bakid á vondum þræl; 6. Ráðlegt er ad innsigla fyrir vondri konu; og þar sem eru margar høndur skaltu læsa; 7. hvad sem þú lætur af hendi, (þad sé) eptir tølu og vigt, og útlát og inntekt allt skriflegt! 8. (Skammast þín ekki) fyrir þad, ad umvanda vid fávísa og heimska, og vid gamlann mann, sem gefur sig í stríd vid þá úngu — þá munt þú vissulega vera vel sidadur og bera úr bítum lof allra sem lifa.

9. Dóttirin ollir fødur sínum heimuglegrar nætur vøku, og umhyggja fyrir henni rekur í burt svefnin: medan hún er í æsku (óttast hann) ad hún giptist of seint, og sé hún gipt, ad hún verdi høtud; 10. medan hún er mey, ad hún verdi svívirdt og gjørd þúngud í fødurgardi; þegar hún lifir med manni, ad hún brjóti, og þó hún búi saman vid hann, ali ekki børn. 11. Vaktadu vandlega óskammfeilna dóttur, svo hún gjøri þig ekki ad athlæi þinna óvina, ad umtalsefni stadarins, og einkénndann medal lýdsins, og sneyptann í mannfjøldanum.

12. Lít á einkis manns frídleika og sit ekki hjá konum. 13. Því úr klædum kémur møl-ur, og frá konum, konu vondska. 14. Betri er vondska mannsins, enn kona sem lætst vera gód kona, sem leidir í skømm til vansa.

15. Eg vil minnast Drottins verka og kunngjøra þad sem eg hefi sjed! Fyrir ord Drottins eru hans verk (til ordin). 16. Sú ljómandi sól skín yfir allt, og hans sköpun er full af hans dýrd. 17. (Jafnvel) þeim

heilögú veitti Drottinn ei það, að þeir gjætu sagt frá øllum hans dásemdum, sem hann, sá alvoldugi Drottinn, hefir gjørt fast, svo það gjørvalla fyrir hans dýrð stadfestist. 18. Undirdjúpið og hjartað ransakar hann, og þeirra (mannanna) athæfi sjer hann graut. 19. Því Drottinn veit hvað allir vita, og skoðar aldarinnar teikn. 20. Hann kunngjørir það umliðna og ókomna, og opinberar spor þeirra huldu hluta. Eingin hugsan fer fram hjá honum, og ekkért orð felst fyrir honum. 21. Þeim miklu verkum sinnar speki hefir hann vel niðurskipað, og er ávalt (hinn sami) frá eilífð til eilífðar. 22. Hann er ekki orðinn meiri og ekki minni, og hefir aldrei þurft ráðgjafa. 23. Hvørsu elskuleg eru øll hans verk! og þó er að sjá, sem eitthvað af neista. 24. Allt þetta lifir og varir eilíflega, til hvørrar brúkunar sem vera skal, og allt er hlýðið. 25. Allt er tvennt, eitt øðru gagnvart, og ekkért liður undir lok, sem hann skóp. 26. Eitt stadfestir gagn hins annars.

## 43. Kapítuli.

*Lofgjörð Skaparans.*

1. Og hvør mun mettast af því að skoða hans dýrð, viðhøfn hæðarinnar, þá kláru festíngu, útlit himinsins í dýrðarinnar útliti. 2. Sólin, þá hún sýnir sig, kunngjørir í (sinni) uppgaungu, furðanlegt verkfæri, verk hins æðsta. 3. Á miðdegi sínu skrælir hún landið; og hvør gétur staðist hennar hita? 4. Í ofninn blása menn, við a) hita verkin; þrefaldt sterkar brennir sólin fjøllin; hún andar á (allt) eldlegum dampa, og sendandi frá sér skínandi geisla, blindar hún augun. 5. Mikill er sá Drottinn er hana skóp, og að hvørs boði hún skundar (sína) leið!

6. Túnglið sømuleiðis (passar) í øllu sína tíð, auglýsir tíma, og aldarinnar teikn. 7. Frá túnglinu eru hátíða merkin, þess ljós rénar þángað til það þrýtur algjørlega. 8. Af því hefir mánudurinn sitt nafn, það vex furðanlega til skiptis. 9. Verkfæri herskaranna í hæðinni lýsir það á festíngu himinsins, skín það í festíngu himinsins. 10. Himinsins fegurð er ljómi stjarnanna, skínandi heimur á hæð Drottins. 11. Eptir boði ens heilaga standa þær (stjørnurnar) í røð, og verða ei þreyttar að halda vørð. 12. Sjá (regn) bogann, og lofa hans Skapara, mjøg fagur er hann í sínum ljómandi litum! 13. Hann umkríngir himininn með sínum dýrðlega hríng; hendur ens æðsta hafa hann spennt (þanið).

14. Eptir sinni tilskipan lætur hann snjóinn hraða sér niður á við, og sendir skyndilega sínar hegnandi eldíngar. 15. Þar af opnast fjársjóðir (himinsins), og skýin fljúga burt, sem fuglar. 16. Með sínum krapti þéttir hann skýin, og sundurmuldir haglsteinar falla niður. 17. Fyrir hans sjón bifast fjøllin. 18. Að hans vilja blæs sunnanvindurinn. 19. Raust hans reiðarslags hræðir jørðina, og norðan stormurinn og hvirfil bilurinn. Hann stráir snjó sem niðurfljúgandi fuglum; og hann (snjórinn) fellur eins og þá eingisprettur setjast niður. 20. Augað dáist að fegurð hans hvítleika, og hjartað furðar sig á hans regni. 21. Hélu, sem salti, stráir hann á jørðina, og þegar frýs, svo myndast oddhvassir frost dinglar. 22. Þegar sá kaldi norðanvindur blæs, leggur ís á vatn: á sérhvørt vatna samsafn leggur hann sig, og færir vatnið sem í brinju. 23. Hann eyðir fjøllum, brennir øræfin og afmáir grængresi sem eldur. 24. Til lækníngar øllu kémur þokan skjótt, døgg sú sem kémur ofaná hita, hún endurnærir. 25. Með sínu boði kom hann hafinu í ró, og

V. 4. a. Þegar eitthvað það skal gjøra, hvar til mikill hiti útheimtist.

gródursetti þar a) eyar. 26. Þeir sem fara
á skipum yfir hafid, segja frá þess hættum,
og á þessi tídindi heyrum vér med undran.
27. Þar eru þau óvenjulegu og furdanlegu
verk, margbreitni af allslags dýrum, hvalfiska
kynid. 28. Honum er ad þakka ad ferdin
heppnast loksins vel. Fyrir hans ord stand-
ast allir hlutir. 29. Svo mikid vér tølum,
komunst vér ei ad því (med ordum). Þetta
er ágrip ordanna: Hann er allt. 30. Hvørn-
ig getum vér hann vegsamad? því hann er
meiri enn øll hans verk. 31. Ottalegur er
Drottinn og harla mikill og furdanlegt hans
veldi.

32. Vegsamid Drottinn og hefjid hann, svo
hátt sem þér getid; hann er samt enn hærri.
33. Hefjid hann af øllum mætti, þreytist ekki!
34. Þér munud samt ekki ná til hans. 35.
Hvør sá hann, ad hann géti honum lýst? og
hvør vegsamar hann eins og hann er? 36.
Margt hulid er meir enn þetta; því vér sjáum
þad minnsta af hans verkum. 37. Því
Drottinn hefir skapad allt og þeim gudræknu
hefir hann lánad vísdóm.

## 44. Kapítuli.

Hrós forfedranna.

1. Látum oss nú vegsama fræga menn
og forfedur vors kyns. 2. Margt dýrdlegt
hefir Drottinn skapad, (sýnt) mikilleik sinn frá
eilífd. 3. Þeir drottnudu í sínum Kóngs rík-
jum, voru nafnkénndir menn, fyrir veldi; þeir
rádsløgudu med hyggindum og kunngjørdu
med spádómum (þad sem hulid var). 4.
Leidtogar fólksins fyrir rádleggíngar og med
því ad útleggja fólksins ritníngar; þeirra upp-
fræding innihéldt hyggilega lærdóma. 5. Þeir
upphugsudu saung løg og orktu ljód skriflega.
(6. Voru audmenn gjæddir miklu veldi, lifdu
fridsamlega, í sínum bústødum. 7. Allir voru
þeir vegsamadir medal sinna ættmanna, og
nafnfrægir urdu þeir medan þeir lifdu. 8.
Nokkrir af þeim eptirlétu sér nafn, svo menn
kunngjøri þeirra lof. 9. Adrir eru þeir, hvørra
endurminníng ekki framar er til, sem lidnir eru
undir lok, eins og þeir hefdu ei til verid, sem
lifdu, eins og þeir hefdu ekki fædst, og þeirra
børn eptir þá. 10. En hinir voru nádarinnar
menn, hvørra dygdir ei munu gleymast. 11.
Hjá þeirra nidjum vardveitist gód erfd, þeirra
eptirkomendur eru í sáttmálanum. Þeirra ætt
stód og þeirra afkvæmi, fyrir þá. Mun þeirra
ætt ad eilífu vidvara, 12. og þeirra ordróm-
ur ei dvína. 13. Þeirra líkami var jardad-
ur í fridi, og þeirra nafn lifir allt til (hinna
ókomnu) ættlida. 14. Lýdirnir hrósa þeirra vís-
dómi, 15. og søfnudurinn kunngjørir þeirra lof.

16. Enok gédjadist Drottni vel og var burt
numinn, ydrunar fyrirmynd fyrir øldina.

17. Nói var réttlátur og gudrækinn fund-
inn, á reidinnar tíma vard hann forlíkunar
medal. 18. Því vard hann jørdunni leifar,
þá vatnsflódid kom. 19. Eilífur sáttmáli var
vid hann gjørdur, ad ei framar skyldi allt hold
afmád verda af vatnsflódi.

20. Abraham er sá mikli fadir margra þjóda,
og hans líki ad vegsemd er ei fundinn. 21.
Hann héldt løgmál ens ædsta og stód í sátt-
mála vid hann. Hann stadfesti sáttmálann á
sínu holdi, og var í prófinu trúr fundinn. 22.
Því hét (Gud) honum med eidi ad þjódirnar
skyldu fyrir hans sædi blessun hljóta, ad marg-
falda hann sem dupt jardar, 23, og ad hefja
hans ætt sem stjørnur himins, og ad géfa henni
landid til eignar frá hafi til hafs, og frá ánni
(Frat) allt til þess ytsta enda. 24. Og í
(vid) Isaak stadfesti hann sømuleidis sakir fød-
ur hans Abrahams, blessun allra manna og

V. 25. *a*. (Nokkrir lesa fyrir Nesus, Jesus).

sáttmálann. 25. Og hann hvíldi yfir Jakobs høfdi. 26. Hann kannadist vid hann í sínni blessan og gaf honum erfd, og adgreindi hans parta, og skipti milli tólf ættkvísla.

## 45. Kapítuli.

Sama efni.

27. Og hann lét af honum koma miskunarmann nokkurn, sem fann nád í alls holds augum, 1. sem elskadur var af Gudi og mønnum, Móses, hvørs endurminníng (er) í blessan. 2. Hann gjørdi hann líkann dýrd enna heiløgu, og gjørdi hann mikinn til skélfíngar óvinunum. 3. Fyrir hans ord lét hann táknunum linna, gjørdi hann vegsamlegann fyrir Kóngunum, gaf honum skipanir til síns fólks, og lét hann sjá nokkud af sínni dýrd. 4. Vegna hans trúmennsku og hógværdar vígdi (kaus) hann hann, útvaldi hann af øllu holdi. 5. Hann lét hann heyra sína raust, og leiddi hann inn í skýid, 6. og gaf honum bodordin frammi fyrir sér, løgmál lífsins og spekinnar, ad hann skyldi kénna Jakob sínn sáttmála og Ísrael sín réttindi.

7. Aron bródur hans, af Leví ættkvísl, hóf hann sem heilagann jafnt honum. 8. Hann gjørdi vid hann eilífann sáttmála, og gaf honum fólksins klerkdóm. 9. Hann gjørdi hann sælan med føgru skarti og girdti ad honum dýrdarinnar kyrtil. 10. Hann klæddi hann ædstu vidhøfn og bjó hann dýrum búníngi, hosum (brókum), sídkyrtli og hokli. 11. Og hann girdti hann med granateplum úr gulli og mørgum bjøllum allt um kríng, svo þær gjæfu frá sér hljóm, er hann gékk, til þess ad hljódid heyrdist í Musterinu, til endurminníngar fyrir sonu hans fólks. 12. Med þeim helga kyrtli, gulli, bláum og raudum purpura, útofnu verki, ordi dómsins, merkjum sannleiksins, 13. glitofnu skarlati, med snildarverklagi, dýrum steinum, stúngnum sem signet, í gull umgjørd med steinskéra verki, til endurminníngar med inngrøfnu letri, eptir tølu Ísraels ættkvísla. 14. (Hann setti) gullkrans á ennisbandid (høfud), innsiglis letur helgidómsins, heidurs skart, dýrt verk, unun augnanna, fagurlega prýdi. 15. Fyrir hann var ekkért þvílíkt til, allt til eldstu tíma. 16. Einginn af annari ætt íklæddist (þessu), hans synir einir og þeirra nidjar æ og ætíd. 17. Hans fórnir eru daglega, ætíd tvisvar, fram reiddar. 18. Móses a) vígdi hann og smurdi hann med því heilaga vidsmjøri. 19. Þad vard honum ad eilífum sáttmála og hans ætt, svo leingi sem himininn stendur, ad þeir skyldu honum þjóna og vera prestar og blessa hans lýd í hans nafni. 20. Hann valdi hann af øllum sem lifdu, ad hann skyldi frambera Drottni fórn, reykoffur og þægilegann ilm til endurminníngar, og til ad fridþægja (fyrir) fólkid. 21. Hann gaf honum í sínum bodordum vald yfir dómanna setníngum, til þess ad kénna Jakob vitnisburdina og upplýsa Ísrael med hans løgmáli.

22. Otrúir menn gjørdu samtøk móti honum og øfundudu hann í eydimørkinni: þeir Datan og Abiram og Kóra flokkur, í reidi og grimd, 23. þad sá Drottinn og mislíkadi þad og þeir urdu afmádir í reidinnar grimd. 24 Hann lét þá verda fyrir undrum, svo hann tortíndi þeim med báli síns elds. 25. Og hann jók Arons heidur og gaf honum arf, frumgróda lét hann verda hans hlutdeild; ákvad einkanlega ríkuglegt braud. 26. Því þeir eta af Drottins fórnum, sem hann gaf honum og hans ætt. 27. Í landi fólksins skulu þeir ad eins einga eign eiga, og einga hlutdeild hefir

V. 18. *a.* Eiginl. fyllti hans høndur, gaf í hønd embættid.

hann (Aron) med fólkinu. Því hann sjálfur (Drottinn) er þeirra hlutdeild og eign.

28. Og Fíneas Eleasarsson, var sá þridji ad verdugleika, því hann vandlætti med gudshrædslu, 29. og stód fast med trúskap síns góda sinnis, þá lýdurinn fráhverfdist og fridþægdi Israel, 30. því var fridar sáttmáli vid hann gjørdur, ad hann skyldi vera forstødumadur prestanna og síns fólks, ad hann og hans ætt skyldi ad eilífu kénnimannstign hafa. 31. Og eptir sáttmálanum vid Davíd, son af Júda ættkvísl, geingur erfd Kóngsins frá syni til sonar; eins tilheyrir Aroni erfdin og hans nidjum. Géfi (Gud) ydur vísdóm í ydar hjørtu til ad dæma hans lýd med réttvísi, svo hans gjædi ei tapist, og hans dýrd (lendi) hjá hans afkomendum!

## 46. Kapítuli.

1. Jesus Nave (son) (Jósúa Núnsson) var øflugur í strídum og Spámadur næst eptir Móses. 2. Hann var, samkvæmt sínu nafni, mikill hjálpari hans útvøldu, í því ad hefnast á óvinunum er mótstødu gjørdu, svo ad hann útvegadi Israel fasteign (erfd). 3. Hvørsu vegsamlegur vard hann, þá hann hóf upp sínar hendur og rikti sverdi mót borgunum? 4. Hvør hefir honum fremur þannig stadid? því Drottinn sjálfur leiddi til hans a) óvinina. 5. Fékk sólin ekki hindrun fyrir hans tilverknad (hønd) og vard ei einn dagur ad tveimur? 6. Hann kalladi til ens ædsta Herra, þegar óvinirnir þreyngdu ad honum á allar hlidar, og sá mikli Drottinn bænheyrdi hann. 7. Hann sveifladi á óvina þjódina haglsteinum ákaflega þúngum og tortíndi mótstødumønnunum í nidurgaungunni, svo ad þjódirnar feingju ad kénna á þeirra (Israelsmanna) vopnum, 8. og (vissu) ad hann (Jósúa) hádi stríd í augsýn Drottins; því hann eptirfylgdi þeim almáttka. 9. Líka gjørdi hann gódverk á Mósis døgum, hann og Kaleb, sonur Jefúnne, þá þeir stódu á móti b) óvinunum, øptrudu fólkinu frá ad syndga, og stødvudu þad vondskufulla møgl. 10. Af 6 hundrud þúsundum manns héldu þeir og bádir lífi, til þess ad leida fólkid inn á þess eign, inn í þad land sem flýtur í mjólk og hunángi.

11. Drottinn veitti og Kaleb styrkleika, og hann héldt honum til elli ára, svo hann gat farid (herfør) móti fjallendinu, og ætt hans héldt eigninni; 12. uppá þad ad allir Israelssynir sæu hvørsu gott þad sé, ad adhyllast Drottinn.

13. Minníng dómaranna, hvørs eins eptir hans nafni, sé og í blessan, þeirra sem ekki létu hjarta sitt sveigjast til hjágudadýrkunar, og ekki féllu frá Drottni! 14 blómgist þeirra bein á sínum stad, 15. og þeirra nafn ýngist upp, med því ad verda vegsamlegt á þeirra sonum.

16. Elskadur af sínum Drottni hóf Samúel, Drottins spámadur, Kóngsríki, og smurdi høfdíngja yfir hans lýd. 17. Eptir løgmáli Drottins dæmdi hann søfnudinn, og Drottinn leit til Jakobs med velþókknan. 18. Fyrir hans trúmennsku kønnudust allir vid, ad hann væri spámadur, og vidurkénndu, søkum hans trúmennsku, ad hans vitrunum mætti trúa. 19. Hann ákalladi þann almáttka Drottinn, þá óvinirnir þreyngdu ad honum á allar hlidar og fórnfærdi dilk. 20. Og Drottinn þrumadi frá himni, og lét sína raust heyra í miklum dun. 21. Og hann sundurmoladi herforíngja Týrusmanna og alla fyrirlida Filisteanna. 22. Og fyrir tíma þess eilífa svefns c), vitnadi hann frammi fyrir Drottni og þeim smurda: Eingar eigur, ekki svo mikid sem skó, hefi eg tekid af nokkrum manni; og einginn gat ákjært hann. 23. Og eptir ad hann var sofn=

V. 4. *a.* Adr: leiddi stridid. V. 9. *b.* Adr: Søfnudinum. V. 22. *c.* Adur enn hann dó.

adur, spádi hann enn nú og kunngjørdi kónginum hans afdrif; hann hóf úr jørdu sína raust, til þess med spádómi ad afmá fólksins syndir (1 Sam. b. 28, 15 sq).

## 47. Kapítuli.

Sama efni.

1. Og eptir þennann kom Natan (upp) á døgum Davíds. 2. Eins og sitan er adskilin frá þakkarfórninni, svoleidis Davíd frá Ísraelssonum. 3. Hann lék vid ljón eins og vid kidlínga, og vid birni eins og lømb. 4. Vann hann ekki á risanum, í sinni æsku, og rak af fólkinu skømmina, 5. þá hann hóf sína hønd med slaungu steini og lægdi Golíats dramb? 6. því hann ákalladi Drottinn, þann ædsta, og hann gaf hans hægri hendi styrk, til ad drepa þann sterka strídsmann, og til ad hefja horn síns fólks. 7. Þannig vegsamadist hann fyrir 10 þúsundir og var sæmdur med Drottins blessan, í því honum var færd dýrdarinnar kóróna. 8. Því hann sundurmoladi óvinina allt um kríng, og afmádi Filisteana, sína mótstødumenn: allt til þessa dags hefir hann brotid þeirra horn. 9. Hann galdt þakkargjørd fyrir hvørt sitt verk. 10. Þeim heilaga og þeim ædsta saung hann lof med dýrdlegum ordum, af øllu hjarta, og elskadi sinn skapara. 11. Hann setti saungmenn vid altarid, og af rødd þeirra sætna sálmarnir a). 12. Hann gjørdi hátídirnar sómasamlegar og prýddi tídirnar sem ágjætlegast, því þeir lofudu hans (Guds) heilaga nafn, og frá því snemma dags heyrdist hljómur úr helgidóminum. 13. Drottinn fyrirgaf honum hans syndir, og hóf upp hans horn ad eilífu, og gaf honum kónga sáttmála (fyrirheit) og dýrdar hásæti í Ísrael.

14. Eptir hann kom hans vitri sonur, og fakir (fødursins) b) átti hann náduga daga. 15. Salómon ríkti á fridar døgum, því Gud gaf honum ró allt um kríng, svo ad hann gjæti byggt hús hans nafni, og tilbúid helgidóm ad eilífu. 16. Hvørsu vitur varst þú í þinni æsku og fullur hygginda eins og vatnsfall! 17. Þinn andi þakti jørdina og fyllti hana med gátnalíkíngum. Allt til fjærlægra eya komst þitt nafn, og þú varst elskadur søkum þíns fridar. 18. Hérødin dádust ad þér, fyrir þín ljód, snillyrdi, líkíngar og útleggíngar. 19. Í nafni Drottins Guds, sem heitir Ísraels Gud, 20. safnadir þú gulli sem tini, og upphrúgadir silfri sem blýi. 21. Þú fadmadir konur og mistir vald yfir þínum líkama. 22. Þú settir skémdarflekk á þína frægd, og vanhelgadir þitt sædi, svo ad þú leiddir reidi yfir þín børn — Sárt skér mig þín fásinna — 23. svoad herradæmid skiptist, og óhlýdugt ríki hófst af Efraim (1 Kgb. 12, 16 f). 24. En Drottinn lætur ei af sinni miskunsemi, og fyrirfer eingu sínu verki; ekki heldur afmáir hann afkomendur sinna útvøldu, og upprætir ekki sád þess, sem hann elskar. 25. Og hann gaf Jakob leifar og Davíd rót af honum sjálfum. 26. Og Salómon lagdist fyrir til hvíldar med sínum fedrum, 27. og eptirlét einn af sínu kyni, fólksins afglapa 28. skilníngslausann, Róbóam, sem med sínu rádi, kom fólkinu til ad gánga undan sér; 29. og Jeróbóam Nebatsson, sem leiddi Ísrael til syndar, og vísadi Efraim á syndarinnar veg. 30. Og þeirra Efraimítanna syndir margføldudust mjøg, svo þeir voru reknir úr sínu landi; 31. þeir sóktust eptir allri vondsku, þángad til hefndin kom yfir þá.

## 48. Kapítuli.

Enn nú sama efni.

1. Og Elía gékk fram, spámadur, sem eld-

---

V. 11. *a*. Sú danska útlegging bætir vid: Og þeir skyldu daglega lofa (Gud) med hans sálmum. V. 14. *b*. Eiginl: tjaldadi á vidiendi.

ur, og hans ord logudu sem blis. 2. Hann
leiddi húngurs neyd yfir þá, og med sínni
vandlætíngasemi fækkadi hann þeim. 3. Fyrir
ord Drottins læsti hann himninum, og leiddi
sømuleidis eld þrisvar af himni nidur. 4. O
hvørsu dýrdlegur varst þú, Elía, fyrir þín
undur? og hvør getur hrósad sér af því, ad
hann sé líkur þér? 5. sem uppvaktir fram-
lidinn af dauda og (kalladir) frá undirheim-
um, fyrir ord hins ædsta, 6. steyptir Kóng-
um í ógjæfu, og gøfugum úr þeirra sætum.
7. Þú, sem á Sínaí heyrdir refsínguna, og á Hór-
eb hefndarinnar dóm; (1 Kgb: 19), 8. sem
smurdir Kónga til endurgjalds og spámenn er
eptir þig skyldu koma, 9. varst uppnuminn í
blossanda bil á vagni med eldlegum hestum.
10. Þú sem varst tiltekinn til ad refsa tímun-
um, ad stilla reidina á undan refsidóminum, ad
snúa hjarta fødursins til sonarins, og vidrétta
aptur Jakobs kynkvíslir. 11. Sælir eru þeir
sem sjá þig, og eru elskunni prýddir! 12. því,
einnig munum vér lifa.

13. Þegar Elía huldist bilnum, svo vard
Elísa uppfylltur af hans anda, og svo leingi
hann lifdi, óttadist hann eingann fursta, og
einginn gat (vid hann rádid) feingid vald yfir
honum. 14. Einginn hlutur var honum of
erfidur, og í grøfinni a) spádi hans líkami.
15. Medan hann lifdi gjørdi hann tákn og
þá hann var dáinn furduverk. 16. Ei ad
heldur gjørdi fólkid bót, og þeir létu ei af sín-
um syndum, þar til þeir voru fluttir burt,
úr sínu landi, og þeim var tvístrad út um
øll lønd. 17. Og svo vard þá eptir lítil þjód
og fursti af Davíds húsi. 18. Nokkrir af
þeim gjørdu ad sønnu hvad (Gudi) var géd-
þekkt; en adrir hrúgudu saman syndum.
19. Esekías gjørdi sína borg rambyggi-
lega og leiddi b) vatn midt inní hana,
gróf í gégnum klettinn med járni og bjó
til dýki fyrir vatnid; 20. Á hans døg-
um fór Senakerib herfør, og sendi Rab-
sake, og hann lagdi af stad, og hóf sína hønd
móti Síon, og montadi í sínu yfirlæti. 21.
Þá nøtrudu þeirra hjørtu og hendur, og ad
þeim kom ángist, sem ad jódsjúkum konum.
22. Og þeir kølludu til Drottins þess misk-
unsama, og breiddu út til hans, sínar hendur.
23. Og sá heilagi í himninum heyrdi þá
skjótt og frelsadi fyrir hønd Esaía. 24. Hann
laust herbúdir Assýríumanna, og hans eingill
afmádi þá. 25. Því Esekías gjørdi þad sem
Drottni vel líkadi, og gékk støduglega á vegum
Davíds, fødur síns, eins og Esaías kénndi
honum, sá mikli spámadur og trúverdugi Sjá-
andi. 26. Á hans døgum gékk Sólin til baka;
og hann leingdi Kóngsins líf. 27. Í mikl-
um anda sá hann hid sídasta og huggadi þá
sorgfullu í Síon. 28. Allt til eilífdar kunn-
gjørdi hann þad ókomna og leynda hluti, ád-
ur enn þeir skédu.

## 49. Kapítuli.

Sama efni.

1. Endurminníng Jósía er reykélsis sam-
bløndun tilreidd fyrir smyrslabirlara verknad.
2. Í sérhvørjum munni er hún sæt sem hun-
áng, og sem hljódfæra sláttur í samdrykkju.
3. Honum tókst umvendun fólksins, og hann
upprætti vidbjód gudleysisins. 4. Hann stefndi
sínu hjarta til Drottins; á døgum þeirra gud-
leysu var hann ávalt stadfastur í gudrækninni.
5. Øllum vard á nema Davíd, Esekías og
Jósía; 6. því þeir (hinir) yfirgáfu løgmál ens
ædsta; Júda Kóngar yfirgáfu þad. 7. Því
þeir ofurgáfu sitt vald ødrum, og sinn verd-

V. 14. *a.* Gjørdi spámanns verk, þ. e. kraptaverk, 2 Kgb. 13, 21. V. 19. *b.* Í Textanum stendur: Góg.
V. 26. 2 Kgb.. 20, 9. fl.

ugleika útlendri þjóð. 8. Þeir kveiktu í þeim útvalda helgidóms stad, og eydiløgdu hans stræti a) fyrir hønd Jeremía. 9. Því þeir høfdu misþyrmt honum, en þó hann í módurlífi væri vígdur til ad vera spámadur, til ad uppræta, tortína og nidurbrjóta og líka til þess ad byggja og gródursetja.

10. Esekíel sá dýrdarinnar sjón, hvørja hann (Gud) sýndi honum á vagni Kerúbanna. 11. Hann mintist óvinanna (med) í hretvidri og bodadi þeim hid góda, sem geingju beinan veg. 12. Blómgist og bein þeirra 12 spámanna á sínum stad; því þeir huggudu Jakob og sýndu þeim frelsun fyrir vissa von.

13. Hvørsu skulum vér Sóróbabel vegsama? Hann er sem signetshríngur á hægri hendi. 14. Sømuleidis og Jósúa sonur Jósadaks: sem bádir á sínum døgum byggdu Drottins hús, og reistu Drottni heilagt musteri, gjørt til eilífrar dýrdar.

15. Líka er nafn Nehemía mikid, hans sem byggdi upp handa oss þá nidurrifnu múra, og setti aptur í lag borgarhlidin og slagbrandana, og byggdi upp aptur vor hús.

16. Ekki einn einasti var á jørdu skapadur jafn Enok; því hann var numinn frá jørdu. 17. Ekki var heldur nokkur madur fæddur sem Jósep, herra sinna brædra, bjargvættur lýdsins. 18. Og hans beina var vitjad. 19. Sem og Set urdu vegsamlegir medal manna, og ofar øllu lifandi í skøpuninni er Adam.

## 50. Kapítuli.

Sama efni.

1. Símon Oníason, høfudpresturinn, endurbætti, medan hann lifdi, húsid, og gjørdi musterid rambyggilegt á sínum døgum. 2. Og af honum var uppbyggd tvøfaldt hærri Musterisins girdíng allt um kríng. 3. Á hans døgum var mínkad vatns-ílátid úr eirinu, ad vídd líkt hafi. 4. Hann bar umhyggju fyrir ad lýdur hans yrdi ei fyrir slisum, og gjørdi borgina rambyggilega gégn umsátrum.

5. Hvørsu dýrdlegur var hann í umgeingni sinni vid lýdinn, þá hann gékk fram úr húsi fortjaldsins! 6. Eins og morgun stjarnan midt í skýi, eins og fullt túngl; 7. eins og sólin, þá hún skín á musteri hins ædsta, og eins og regnboginn, þá hann lýsir í dýrdarinnar skýum; 8. eins og blómleg rós á vor tíma, eins og lilja vid vatnslind, eins og greinir á Líbanon á sumardegi; 9. eins og eldur og reykelsi í glódarkéri; 10. eins og kér af skíru gulli prýdt allshátttar gimsteinum; 11. eins og frjóssamur vidsmjørs vidur, eins og furutré sem nær til skýanna. 12. Þegar hann klæddist þeim dýrdlega kyrtli, og setti á sig þad algjørdasta skart, upplýsti hann allann helgidóminn, í því hann gékk upp ad því helga altari. 13. En er hann tók vid fórnarstikkjunum úr høndum prestanna, og þá hann stód sjálfur vid altarisins eldstó, 14. en brædur hans allt í kríngum hann, svo var hann sem Sedrus vidar grein á Líbanon; og þeir umkríngdu hann sem Pálmavidar greinir. 15. Og allir Aronssynir voru í sínu skarti, og høfdu Drottins fórn í sínum høndum frammi fyrir øllum Ísraels søfnudi; 16. og til ad fullkomna þjónustugjørdina á altarinu, og til ad krýna fórn hins ædsta alvalda stjórnara, 17. útrétti sína hønd til fórnabollans og dreypti víni, og helti á altaris fótinn sætleiks ilm, handa þeim ædsta Konúngi alls (heimsins). 18. Þá kølludu Arons synir med hárri raust, blésu í básúnurnar, og létu sína raust hátt vid kveda, til endurminníngar fyrir þeim ædsta. 19. Þá féll allt fólkid á sitt andlit til jardar, til ad tilbidja frammi fyrir sínum Drottni, heimsins stjórnara, Gudi þeim ædsta. 20. Og sálma

V. 8. a. Eins og Jerem: hafdi hótad.

saungvarar lofudu hann med sinni raust, og í
øllu musterinu kvad vid sá sæti saungur. 21.
Og fólkid bad til Drottins, þess ædsta, med
bænum, frammi fyrir þeim miskunsama, þáng-
ad til þeirri føgru (þjónustugjørd) Drottins
var lokid, og þeir høfdu fullnustu gjørt sínu
embætti. 22. Þá sté hann nidur og hóf sín-
ar hendur yfir allan søfnud Israelssona til ad
vegsama Drottinn med sínum vørum, og víd-
frægja hans nafn. 23. Og hann ítrekadi bæn-
ina til ad meddeila þeim Drottins blessan.

24. Og vegsamid nú Gud allir, hann, sem
ad allstadar gjørir mikla hluti, sem frá móð-
urlífi farsælir vora daga, og breytir vid oss
eptir sinni miskunsemi. 25. Hann géfi oss
gladvært hjarta og ad fridur sé á vorum døgum
í Israel, eins og á fyrri døgum; 26. ad hann
veiti oss sína miskun og frelsi oss á sínum tíma!

27. Tvær þjódir hatar mín sál, og sú þridja
er ekki þjód. 28. Þá sem búa á fjallinu Seir,
Filisteana, og þad fávísa fólk sem býr í Sikem.

29. Þekkíngar og hygginda lærdóm hefi eg
skrifad í þessa bók, eg Jesús Síraksson frá
Jerúsalem, hvøred hellti spekinni úr sínu hjarta.
30. Sæll er sá, sem idkar þetta; og hvør sem
þad vardveitir í sínu hjarta mun verda vitur. 31.
Því þegar hann breytir eptir því, svo mun hann
megna allt, því ljós Drottins upplýsir hans veg.

## 51. Kapituli.

*Þakklætis bæn, upphvatníng til vísdóms ástundunar.*

1. Eg vil vegsama þig Drottinn, (þig)
konúngur, og lofa þig, Gud, minn frelsari! 2.
Eg vegsama þitt nafn, því þú varst mín vernd
og hjálp. 3. Þú frelsadir minn líkama frá
ófórum, úr snørum rægjandi túngu, frá lygara
vørum, og gégn mínum mótstødumønnum varstu
mér hjálp. 4. Þú hefir frelsad mig eptir þinni
mikilli miskunsemi, og eptir þínu nafni, frá
grenji þeirra, sem voru reidubúnir ad rífa mig í
sig; 5. úr þeirra hendi, sem sátu um mitt líf;
úr þeim mørgu þreyngíngum sem eg hefi þol-
ad; 6. úr þeim kjæfandi eldsbruna allt um
kríng, midt úr eldinum, ad eg ekki brynni í
honum, úr þeim vída svelgi undirheima; 7. frá
hroda túngu og lyga tali, frá rógburdi vid
Konúng af túngu hins vonda. 8. Mín sál
nálgadist daudann, og mitt líf var í nánd vid
undirheima. 9. Þeir umkríngdu mig á allar
hlidar og einginn madur hjálpadi mér; 10.
eg litadist um eptir hjálp hjá mønnum, og fann
einga. 11. Þá hugsadi eg, Drottinn! til
þinnar miskunar, og framkvæmdarsemi frá ei-
lífd, 12. hvørsu þú frelsar þá sem þín bída,
og bjargar þeim úr hendi þjódanna. 13. Og
eg hóf upp frá jørdu mína grátbeidni, og bad
um lausn frá daudanum. 14. Eg kalladi til
Drottins a), Fødurs, míns Herra, ad hann
yfirgjæfi mig ekki á neydarinnnr døgum, á
þeim hentuga tíma, fyrir oflætis mennina, þá
eingin hjálp fæst. 15. Eg vil lofa þitt nafn
án afláts, og sýngja þér þakkarljód, því mín
bæn var heyrd. 16. Því þú hefir bjargad
mér frá gløtuninni, og hrifid mig frá þeirri
vondu tíd. 17. Því þakka eg og sýng þér
lof, og vegsama Drottins nafn.

18. Þá eg var enn nú úngur, fyrr enn eg
vard afvega leiddur, leitadi eg spekinnar aug-
ljóslega í minni bæn. 19. Frammi fyrir
musterinu bad eg um hana, og allt til míns
endadægurs vil eg hennar leita. 20. b) (Eins
og af blómstri þess þroskada vínbers), gladdist
mitt hjarta af henni. 21. Minn fótur fór
beina leid, frá æsku ellti eg hennar spor. 22.
Eg hneigdi dálítid ad henni mitt eyra, og
medtók (hana). Og fann mikla uppfrædíngu
fyrir mig. 23. Eg tók framførum í henni.
Þeim, sem gaf mér speki, vil eg géfa dýrd!

V. 14. *a.* Adr: míns fødurs og herra. V. 20. *b.* Adr: frá blómstrinu til þess þroskada vínbers, etc.

24. Eg hugsadi mér ad ydka hana, og ástundadi hid góda, og eg mun ekki til skammar verda. 25. Mín sála neytti orku søkum hennar, og í því hún ærdi upp í mér sult, ransakadi eg grandgjæfilega! 26. Eg útbreiddi mínar hendur í hædina, 27. og syrgdi þad, ad eg þekkti hana ekki. 28. Eg stefndi minni sál til hennar, og fékk a) elsku til hennar frá upphafi, og fann hana af (minni) einlægni, og því mun eg ei yfirgéfinn verda. 29. Eg hafdi innilega laungun ad leita hennar, því fékk eg dýrann fésjód. 30. Drottinn gaf mér í umbun túngu (málsnild), med henni vil eg hann lofa.

31. Komid til mín, þér sem ei hafid verid mentadir, stadnæmist í mentunarinnar húsi. 32. Því viljid þér án þessa vera, þegar ydar sálir þyrstir svo ákaflega? 33. Eg hefi upplokid mínum munni og talad: kaupid handa ydur án peninga! 34. Leggid ydar háls undir okid, og ydar sálir þiggi uppfrædingu: hana er ad fá í nánd. 35. Sjáid med ydar augum, ad eg hefi lítid erfidi haft, og fundid mikla hvíld. 36. Aflid mentunar sem mikils silfurs, og útvegid ydur yfirgnæfanlegt gull med henni! 37. Ydar sálir gledji sig af Guds miskunsemi, og skammist ydar ei fyrir hans lof. 38. Vinnid ydar verk fyrir (umbunar) tímann, svo mun hann géfa ydur ydar laun á sínum tíma.

# Barúks Bók.

## 1. Kapítuli.

*Sendibréf frá þeim herteknu í Babel til þeirra brædra í Jerúsalem.*

1. Þetta eru ord bréfsins sem Barúk skrifadi í Babýlon, sonur Nería, sonar Mahasía, sonar Sedekía, sonar Asadía, sonar Helkía, 2. á fimta ári í sjøunda mánudi á þeim tíma er Kaldeumenn unnu Jerúsalem og brenndu med eldi.

3. Og Barúk las ord þessa bréfs fyrir eyrum Jekonía Jójakimssonar, Júda Kóngs, og fyrir eyrum alls fólksins sem saman var safnad sakir bréfsins. 4. Og fyrir eyrum strídsmannanna, og Kóngssonanna, og fyrir eyrum þeirra eldstu, og fyrir eyrum alls fólksins, smárra og stórra, allra sem bjuggu í Babýlon vid ána Sud. 5. Og þeir grétu og føstudu, og bádust fyrir frammi fyrir Drottni. 6. Og þeir skutu peníngum saman, eptir sem sérhvørs hønd orkadi, 7. og sendu til Jójakim í Jerúsalem, sonar Helkia, sonar Saloms, høfudprests, og til hinna annara presta, og til alls fólksins, sem var med honum, í Jerúsalem, 8. þá hann hafdi tekid vid kérum Drottins húss, sem burt høfdu verid flutt úr musterinu, til þess ad fara med þau aptur í Júda land, þann tíunda (dag) í (mánudinum) Sivan, silfur áhøldunum, sem Sedekía Jósía son, Júda Kóngur hafdi gjørt, 9. eptir ad Nebúkadnesar Babýlons Kóngur hafdi flutt burt til Babýlon frá Jerúsalem, Jekonía og høfdíngjana og fángana og strídsmennina og landsfólkid.

10. Og þeir søgdu (í bréfinu): sjá, vér sendum ydur peninga, kaupid fyrir peníngana brennifórn og syndafórn, og reykelsi, og frambérid matoffur, og fórnfærid á altari Drottins

V. 28. *a.* Eiginl. hjarta.

vors Guds, 11. og bidjid fyrir lífi Nebúkad-
nesars Kóngs í Babýlon, og fyrir lífi sonar
hans Baltasar, ad þeirra dagar meigi verda
sem dagar himinsins yfir jørdunni. 12. Svo
mun Drottinn veita oss krapt og upplýsa vor
augu, og vér munum lifa undir skugga Nebú-
kadnesars, Kóngs í Babýlon, og undir skugga
sonar hans, Baltasars, og vér munum þjóna
þeim marga daga, og finna nád frammi fyrir
þeim. 13. Og bidjid Drottinn, vorn Gud,
fyrir oss; því vér høfum syndgast móti Drottni,
vorum Gudi, og géd Drottins og reidi hefir
ei frá oss horfid allt til þessa dags. 14.
Og lesid þetta bréf sem vér sendum ydur svo
ad þér kunngjørid þad í Drottins húsi, á há-
tídar deginum og á hentugum døgum, 15.
og segid: Drottinn vor Gud er réttlátur, en
vér meigum skammast vor a), eins og nú er
dagurinn Júdamanni og Jerúsalems inabúum,
16. og Konúngum vorum og høfdíngjum vor-
um og prestum vorum og spámønnum vorum
og fedrum vorum, 17. fyrir þad sem vér høf-
um syndgad í augsýn Drottins, 18. og vér
hlýddum honum ekki, og gégndum ekki raust-
inni Drottins vors Guds, ad gánga eptir
Drottins bodordum, sem hann hafdi oss géfid
bersýnilega, 19. frá þeim degi ad Drottinn
flutti fedur vora burt úr Egyptalandi; og allt
til þessa dags, vorum vér óhlýdnir Drottni,
Gudi vorum, og vorum svo athugalausir, ad
vér hlýddum ekki hans raust; 20. því nádi oss
ógjæfan og sú bølvan sem Drottinn baud sín-
um þénara Móses (ad boda), á þeim degi,
er hann flutti fedur vora burt úr Egyptalandi,
til ad géfa oss þad land sem flýtur í mjólk
og hunángi, eins og þennann dag (er). 21.
Og vér hlýddum ekki raustinni Drottins vors
Guds eptir øllum ordum spámannanna, sem
hann sendi til vor, 22. svo vér geingum, hvør
einn eptir hugsan sinsvonda hjarta, ad þjóna hjá-
gudum; og adhafast illt, fyrir augum Drottins
vors Guds.

## 2. Kapítuli.

Sama bréfid.

1. Og Drottinn hefir efnt þad ord sitt sem
hann taladi á móti oss, og á móti vorum dóm-
urum sem dæmdu Ísrael, og móti vorum
Kóngum, og móti vorum høfdíngjum og móti
Ísraels og Júdamønnum, 2. ad hann vildi
yfir oss leida mikla óhamíngju, sem ei hefur gjørst
undir øllum himninum, lík þeirri, sem hann
gjørdi í Jerúsalem, eptir því sem skrifad stend-
ur í Mósis løgmáli: 3. ad vér skyldum eta
hvør einn hold síns sonar, og hvør einn hold
sinnar dóttur. 4. Og hann gjørdi þá ad und-
irlægjum allra ríkjanna í kríngum oss, til brixl-
is og bølvunar medal allra lýda allt um kríng,
hvar Drottinn hafdi þeim tvístrad. 5. Og
þeir voru undir en ei yfir, af því vér syndg-
udum móti Drottni vorum Gudi, og vér ekki
gégndum hans raust. 6. Drottinn vor Gud
er réttlátur, en oss og vorum fedrum tilheyrir
blygdun vors andlitis, eins og nú í dag (er).
7. Drottinn hefir hótad oss allri þeirri óham-
íngju, sem yfir oss er komin, 8. og vér grát-
bændum ekki Drottinn, ad hann léti hvørn og
einn snúa sér frá hugsunum síns vonda hjarta,
9. og Drottinn vakti yfir ógjæfunni og Drott-
inn leiddi (hana) yfir oss, því réttlátur er
Drottinn í øllum sínum gjørdum, sem hann
hefir oss bodid, 10. og vér hlýddum ekki hans
raust, ad gánga eptir Drottins bodordum, sem
hann berlega hafdi géfid oss.

11. Og nú Drottinn, Ísraels Gud, sem út-
leiddir þinn lýd úr Egyptalandi, med øflugri
hendi, og med táknum og furduverkum, og med
miklum mætti, og med upplyptum armi og
gjørdir þér nafn, eins og nú (er). 12. Vér

V. 15. a. Þ. e. eins og nú stendur á fyrir oss etc.

höfum syndgad, verid gudlausir, og yfirtrodid, Drottinn vor Gud, alla þína setnínga. 13. Lát þína reidi frá oss snúast! því fáir af oss eru eptir ordnir medal þjódanna, hvar þú hefir oss tvístrad. 14. Heyr, Drottinn, vora bæn og grátbeidni, og frelsa oss sökum þín og lát oss finna nád hjá þeim sem hafa oss í burtu flutt, 15. svo öll veröldin þekki, ad þú, Drottinn, ert vor Gud, ad Ísrael og hans kyn, er nefnt eptir þínu nafni.

16. Drottinn, lít nidur frá þínu heilaga húsi, og hugsa til vor, og hneig, Drottinn, þitt eyra og heyr! 17. Uppljúk þínum augum og sjá, því þeir framlidnu í undirheimum, hvörra andi tekinn er úr þeirra inniflum, greida ei Drottni heidur og hollustu; 18. heldur sú mikilega hrigga sál, hvör, sá sem geingur bjúgur og vesællegur, þau vanmegna augu og húngrudu sálir, gefa þér, Drottinn, heidur og hollustu. 19. Ekki í trausti til réttlætis vorra fedra og vorra Konúnga (réttlætis) berum vér, Drottinn vor Gud, fram fyrir þig, vora grátbeidni! 20. því þú hefir leidt yfir oss þína reidi og grimd, eptir því sem þú taladir, fyrir þína þjóna spámennina: 21. „Svo segir Drottinn: beygid ydar herdar og þjónid Kónginum í Babel, þá munud þér vera kyrrir í landinu, sem eg gaf ydar fedrum; 22. en ef þér hlýdid ekki Drottins raust, ad þjóna Kónginum í Babel; 23. þá skal eg láta þagna í Júdastödum og í Jerúsalem, fagnadarins raust og gladværdarinnar raust, brúdgumans raust og brúdurinnar raust, og allt landid skal verda ad audn hvar einginn býr.“ (Jerem. 25, 10. 27, 8). 24. En vér hlýddum ekki þinni raust, ad þjóna Kónginum í Babel. Og svo efndir þú þitt ord, sem þú taladir fyrir þína þjóna spámennina, ad beinum vorra Kónga og beinum vorra fedra skyldi burtsnarad verda úr þeirra a) stödum. 25. Og sjá, þau liggja útsnörud fyrir hita dagsins og kulda næturinnar, og þeir hafa hörmulega farist fyrir húngri og sverdi og drepsótt. 26. Og þú hefir gjört þad hús, sem nefnt var eptir þínu nafni, eins og þad er þennann dag, sökum vondsku Ísraels húss og Júda húss.

27. En vid oss, Drottinn vor Gud, hefir þú breitt eptir allri þinni gjæsku, og eptir allri þinni miklu miskunsemi, 28. eins og þú hefir talad fyrir þinn þjón Móses, á þeim degi þá þú baudst honum ad skrifa þitt lögmál, frammi fyrir Ísraelssonum og sagdir: 29. „ef þér hlýdid ekki minni raust, þá skal þessi mikli og margmenni fólks hópur verda lítill medal þjódanna, innan um hvörjar eg vil tvístra þeim. 30. Því eg veit vel, ad þeir munu ekki hlýda mér; því þeir eru hardsvíradt fólk. En þeir munu umvenda sér í þeirra herteknángarlandi, 31. og vidurkenna, ad eg Drottinn, er þeirra Gud. Og eg mun gefa þeim hjarta, og heyrandi eyru. 32. Þá munu þeir lofa mig í þeirra herteknángarlandi, og minnast míns nafns, 33. og snúa sér frá sinni þrjótsku og frá sínum vondu sidum; því þeir munu hugsa til þess hvörnig fór fyrir þeirra fedrum, sem syndgudu fyrir Drottins augsýn. 34. Þá skal eg flytja þá aptur í þad land sem eg sór þeirra fedrum, Abraham, Ísaak og Jakob; og þar skulu þeir drottna, og eg mun fjölga þeim, og þeir skulu ekki fækka. 35. Og eg mun gjöra vid þá eilífann sáttmála ad eg sé þeirra Gud, og þeir mitt fólk. Og eg mun ei framar reka mitt fólk, Ísrael, úr því landi, sem eg gaf þeim.“

## 3. Kapituli.

*Fyrst sama efni, og svo lofgjörd Drottins fyrir hans vísdómsfulla lögmál.*

1. Almáttugi Drottinn, Ísraels Gud! áng-

V. 24. Þ. e. gröfunum.

urvært sinni og áhyggjufullur andi kallar til þín. 2. Heyr Drottinn, og miskuna; því vér høfum syndgad móti þér. 3. Þú ríkir ad eilífu; en vér fyrirførumst ad eilífu. 4. Almáttugi Drottinn, Ísraels Gud! heyr þó bæn þess deyandi Ísraels og hans sona, sem móti þér hafa syndgad, sem ekki hlýddu raust þeirra Guds, hvørs vegna ógjæfan hitti oss! 5. minnstu ekki misgjørda vorra fedra, heldur minnstu, á þessum tíma, þinnar handar og þíns nafns. 6. Því þú ert Drottinn vor Gud, og vér viljum, Drottinn, lofa þig! 7. Því þessvegna hefir þú lagt þinn ótta i vor hjørtu, ad vér ákøllum þitt nafn, og vér viljum þig vegsama í vorri hertekníngu. Því vér høfum útrýmt úr vorum hjørtum misgjørdum vorra fedra, sem móti þér syndgudu. 8. Sjá, vér erum í dag í vorri útlegd, hvørt þú hefir hrakid oss til smánar, til bølvunar og til sektar fyrir allar misgjørdir vorra fedra, sem brugdu hollustu vid Drottinn, þeirra Gud.

9. Heyr, Ísrael, lífsins bodord, takid eptir svo þér lærid hyggindi! 10. Hvørnig stendur á því, Ísrael, ad þú ert í óvina landi, 11. ad þú eldist í framandi landi, ert saurgadur af daudum, ert talinn med þeim í undirheimum? 12. Þú yfirgafst spekinnar uppsprettu. 13. Hefdir þú gengid á Guds vegum, svo byggir þú til eilífdar í fridi. 14. Lær þú (ad þekkja) hvar hyggindi eru, hvar kraptur er, hvar speki er, svo þú líka þekkir, hvar lánglífi, hvar gjæfa, hvar ljós fyrir augun og fridur er.

15. Hvør hefir fundid hennar (spekinnar) bústad, og hvør hefir komist ad hennar fjársjódum? 16. Hvar eru høfdíngjar þjódanna. og drottnendur yfir dýrum jardarinnar, 17. sem léku vid fugla himinsins og søfnudu silfri og gulli, sem menn treysta, og einginn endi var þeirra addrátta, 18. sem smídudu silfur og høfdu áhyggjur, og hvørra verk voru ómælanleg? 19. þeir eru horfnir og sokknir nidur til undirheima, og adrir eru komnir í þeirra stad. 20. Þeir ýngri sáu ljósid og bjuggu á jørdunni; en veginn til spekinnar vissu þeir ekki, 21. og gøtu hennar þekktu þeir ekki. Þeirra synir hafa enn hraparlegar villst. 22. Menn heyra ekkért um hana í Kanaan; menn sjá hana ekki í Teman. 23. Hagars synir grennsludust eptir jardneskum hyggindum og kaupmennirnir frá Meran og Teman og dæmisøgu skáldin og skilníngs eptirleitendur; en spekinnar veg þekktu þeir ekki og eptir hennar gøtu tóku þeir ekki.

24. Ó Ísrael, hvørsu mikid er Guds hús, og hvørsu rúmlegir stadir hans eignar! 25. já mikid, og hefir eingann enda, hátt og ómælanlegt!

26. Þar a) voru risar, þeir nafnfrægu, frá upphafi miklir ordnir, og þeir kunnu til strids. 27. Ekki valdi Gud þessa, né opinberadi þeim spekinnar veg. 28. Þeir fórust, af því þeir høfdu eingin hyggindi, fórust af sinni heimsku.

29. Hvør hefir til himna uppstígid og sókt hana (spekina) og flutt nidur úr skýunum? 30. Hvør hefir farid yfir hafid og fundid hana, svo hann gjæti komid med hana, fyrir einvala gull? 31. Einginn þekkir hennar veg, einginn tekur eptir hennar gøtu. 32. En sá sem allt veit, þekkir hana, hefir fundid hana med sínu viti. Sá, sem jørdina skóp til eilífdar og fyllti hana ferfættum dýrum; 33. sá sem sendir ljósid, ad þad fari; sem kallar þad, og þad hlýdir honum skjálfandi. 34. Stjørnurnar lýsa þar, sem þær halda vørd, og eru gladar; hann kallar þær, og þær segja: 35. „Hér erum vér." Þær lýsa gladlega sínum skapara. 36. Þessi er vor Gud, og eingum ødrum er vid hann ad líkja. 37. Hann hefir fundid allann veg vitskunnar, og géfid hana

V. 26. a. Þar, þ. e. í Kanaanslandi.

Jakob, sínum þénara, og Ísrael, sínum elsku-
lega. 38. Sídan hefir hún byrtst á jørdu,
og verid á ferd medal mannanna: 4. Kapít.
1. þetta er bók Guds bodorda, og þad løg-
mál sem varir ad eilífu. Allir þeir lifa sem þad
halda; en þeir deya sem þad yfirtroda. 2.
Snú þér, Jakob, og medtak þad; gakk vid birt-
una í þess ljósi! 3. Géf eingum ødrum þinn
heidur, og eingum framandi þjódum þín
gædi! 4. Sælir erum vér Ísraelsmenn, ad
oss er augljóst, hvad Gudi vel þóknast.

## 4. Kapítuli.

Ísraels huggun.

5. Vertu hughraust, mitt fólk, leifar Ísra-
els! 6. Þér erud seldir þjódunum, en ei til
tortíníngar; af því Gud hefir reidst ydur, erud
þér framseldir ydar mótstødu mønnum, 7. því
þér hafid reitt ydar skapara til reidi, med því
ad færa fórnir vondum øndum, og ekki Gudi.
8. Þér hafid gleymt þeim eilífa Gudi, sem
ól ønn fyrir ydur; og þér hafid hryggt Jerú-
salem, sem upp ól ydur. 9. Því hún sá þá
reidi Guds, sem yfir ydur mundi koma, og
mælti: „Heyrid þér, sem búid í nánd vid
Síon, Gud hefir sendt mér mikla hrigd, 10.
því eg sá herteknínngu minna sona og dætra,
sem sá eilífi yfir þá leiddi; 11. Eg hefi upp-
alid þá med gledi, en eg lét þá frá mér med
gráti og sorg. 12. Einginn hlakki yfir mér,
ekkjunni, sem af flestøllum er yfirgéfin, sem er
sett í audn, søkum synda minna barna. 13.
Af því þau viku frá løgmáli Guds, og þekktu
ekki hans setnínga, og geingu ekki á vegum
hans bodorda, og fóru ekki gøtu mentunar-
innar í hans réttlæti. 14. Komid hér, þér sem
búid í nánd vid Síon, og hugsid til minna
sona og dætra herteknínngar, er sá eilífi yfir
þá leiddi! 15. Því hann hefir yfir þá leidt
fólk úr fjarlægd, ósvífid, sem talar ókunna
túngu, sem hvørki sýnir virdíngu gamalmenn-
inu, né miskun barninu! 16. Þad flutti
burt uppáhald ekkjunnar, og svipti þá, sem
var einmana, hennar dætrum. 17. En eg,
hvørnig skyldi eg megna, ad hjálpa ydur? 18.
Sá sem leiddi yfir ydur þessa óhamíngju, mun
og frelsa ydur af hendi ydar óvina.

19. Farid børn, farid, því eg verd yfir-
géfin hér eptir. 20. Eg hefi afklædst gledi
klædunum, og íklædst sorgar búníngi grát-
beidninnar. Eg mun kalla til ens ædsta med-
an mínir dagar endast. 21. Verid ørugg,
børn! kallid til Guds, hann mun frelsa ydur
úr valdi, úr hendi óvinarins, 22. því eg vænti
ydar frelsunar frá þeim eilífa, og mér hefir veitst
føgnudur af þeim heilaga, sakir þeirrar misk-
unar, sem ydur nú þegar mun veitast af þeim
eilífa, ydar frelsara. 23. Med gráti og sorg
lét eg ydur frá mér; en Gud mun géfa mér
ydur aptur med eilífum føgnudi og unadsemd.
24. Því eins og Síons nábúar hafa nú sjed
ydar hertekníngu, svo munu þeir innan skams
horfa á hjálpina, frá ydar Gudi, sem til ydar
mun koma med mikilli dýrd og eilífum ljóma.
25. Børn, berid med þolinmædi reidina, sem
komin er frá Gudi yfir ydur! óvinurinn hefir
ofsókt þig, en þú munt sjá hann fyrirfarast
innan skams, og stíga á hans háls. 26.
Mín a) sællegu (børn) urdu ad fara ógreida
vegu, voru burtrekin sem hjørd, rænd af óvin-
um. 27. Verid samt hughraust børn og kallid
til Guds! því ydar mun minnst verda af
honum, sem leiddi þetta yfir ydur. 28. Því
eins og ydar sinni stefndi til óhollustu vid
Gud, svo snúid ydur nú tífaldlega og leitid
hans. 29. Því sá sem leiddi yfir ydur ó-
gæfuna, mun leida yfir ydur eilífan føgnud
med ydar frelsun".

V. 26. *a.* Af sællífi og eptirlæti, horku og táplaus.

30. Vertu hughraust, Jerúsalem! þig mun sá hugga, sem þér gaf nafn. 31. Aumir munu þeir verda, sem gjørdu þér íllt og gløddust af þínu falli. 32. Aumar þær borgir, sem þín børn urdu ad þjóna, aum sú, sem héldt þínum sonum herteknum. 33. Því eins og hún gladdist af þínu falli, og fagnadi yfir því ad þú steyptist, svo mun hún hriggjast af sinni eigin eydileggíngu. 34. Og eg mun svipta hana gledinni yfir þeim mikla mannfjølda og snúa hennar yfirlæti í harma kløgun. 35. Því eldur mun yfir hana koma frá þeim eilífa, marga daga í senn; og í lángann tíma munu vondir andar í henni búa. 36. Lít til austurs, Jerúsalem, og sjá þann føgnud, sem til þín kémur frá Drottni! 37. Sjá! þínir synir koma sem þú frá þér létst; þeir koma samansafnadir frá austri til vesturs, fyrir ord þess heilaga, gladir af Guds dýrd.

## 5. Kapítuli.

Sama efni.

1. Afklæd þig, Jerúsalem, sorgar og eymdar búníngunum, og íklæd þig því skarti dýrdarinnar sem þér er eilíflega af Gudi lánad! 2. Far þú í þann fódrada kyrtil réttlætisins frá Gudi, og set á þitt høfud dýrdar kórónu þess eilífa! 3. Því Gud mun sýna þinn ljóma allri jørdu undir himninum. 4. Því þitt nafn mun af Gudi ad eilífu nefnt verda: Fridur réttlætisins og (hrós) dýrd gudrækninnar. 5. Statt upp, Jerúsalem, gakk upp á hædina, og lít til austurs, og sjá þín børn samanheimt frá nidurgaungu sólarinnar, allt til uppgaungu, fyrir ord hins heilaga, og þau gledja sig vid Guds tilhugsan! 6. Fótgángandi fóru þau frá þér, rekin af óvinunum, en Gud færir þér þau aptur upphafin med dýrd, eins og í Kóngs hásæti. 7. Því Gud baud ad øll há fjøll og eilífir hólar skyldu lækka og dalirnir fyllast, svo allt yrdi slétt, svo Israel geingi óhultur fyrir Drottins dýrd. 8. En skógarnir géfa, og øll ilmandi tré, Israel skugga, eptir Guds bodi. 9. Því Gud mun leida Israel med føgnudi í ljósi sinnar dýrdar, med sinni miskunsemi og réttlæti.

## 6. Kapítuli.

Jeremía bréf. Vidvørun vid hjágudadýrkun.

Utskrift af bréfi, sem Jeremías sendi þeim er skyldu verda fluttir sem herteknir til Babýlon, af Konúngi Babýlons manna, til ad kunngjøra þeim hvad honum var bodid af Gudi. 1. Sakir þeirra synda, med hvørjum þér hafid gjørt ydur seka fyrir Gudi, munud þér, herteknir, verda fluttir til Babýlon af Nebúbadnesar Konúngi Babýlonsmanna. 2. Þegar þér nú komid til Babýlon, svo munud þér verda þar mørg ár og lángan tíma, allt ad sjøunda ættlid. En eptir þad mun eg flytja ydur þadan í fridi.

3. Enn nú munud þér sjá í Babýlon silfur- og gull- og tré-gudi, sem bornir verda á herdum og koma inn ótta hjá þjódunum. 4. Gjætid ydar nú, ad þér gjørid ei hid sama sem hinir útlendu, og ótti fyrir þeim grípi ydur, þegar þér sjáid fólk, tilbidja frammi fyrir þeim, og á baka til vid þá. 5. Segid miklu framar í ydar hjørtum: þig skulu menn tilbidja, Drottinn! 6. Því minn Eingill er hjá ydur og hann a) hefnir ydar sálna.

7. Þeirra (hjágudanna) túnga er skorin af hagleiksmønnum, þeir eru búnir gulli og silfri; en þad er tál (lýgi), og þeir géta ei talad. 8. Eins og handa jómfrú sem elskar skart, taka þeir gull og gjøra þar af kórónur á høfud sinna guda. 9. En þad ber líka vid ad prestarnir taka burt gullid og silfrid af þeirra gudum, og verja því sér til nota. 10. Þeir

V. 4. Tilbidja þá í bak og fyrir. V. 6. *a.* Adr: ransakar ydar sálir.

géfa af því hórum í hóruhúsum. Þeir prýda þá eins og menn med klædum, þessa silfur- gull- og tré-gudi. 11. En þeir verda ei vardir fyrir ridi og møl, þó yfir þá sé lagt purpura klædi. 12. Menn strjúka af þeirra andliti húsarikid, sem setst mikid á þá. 13. (Godid) heldur á veldisspíru eins og madur sem drottnar yfir landinu, en gétur ekki deydt þann, sem móti því syndgar. 14. Pad hefir sverd í hægri hendi og øxi, en gétur ekki varid sig fyrir strídi og ræníngjum, þar af er audsætt, ad þeir eru eingir gudir, óttist þá því ekki.

15. Því eins og brotid ílát er mønnum til einkis gagns, svo eru og þeirra gudir. 16. Reisi menn þá upp í húsunum svo verda þeirra augu full af riki, undan fótum þeirra sem inngánga. 17. Og eins og sá sem brotid hefir móti Konúnginum er í fángélsi innlæstur, þar ed hann skal líflátast, svo geyma prestarnir þeirra mustera, med hurdum, lásum og slagbrøndum, svo þeim verdi ei stolid af ræníngjum. 18. Þeir tendra lampa, og meir enn handa sjálfum sér, og þeir géta þó aungvan þeirra sjed. 19. Þeir eru eins og einhvør bjálkinn í húsinu, og þeirra innisli sundurnaga, segja menn, ormarnir úr jørdunni, og eta í sundur þá og þeirra búníng, án þess þeir finni til þess. 20. Þeirra andlit er svart af húsreyk. 21. Á þeirra líkama og høfud setjast náttuglur, svølur og adrir fuglar; sømuleidis og einnig kéttirnir. 22. Því gétid þér sjed, ad þeir eru eingir gudir, óttist þá því ekki!

23. Pad gull sem á þá er heingt til skárts, glansar ekki, nema menn strjúki af ridid (rikid), og ekki fundu þeir til, þá þeir voru steyptir. 24. Þeir éru keyptir dýrum dómum, og þó er einginn andi í þeim. 25. Fótalausir eru þeir bornir á herdum og sýna mønnum med því, ad þeir séu einkisverdir. 26. Þeirra þjónar meiga líka skammast sín, þar ed þeir, ef á jørd falla, géta ei aptur reist sig, né heldur, þó einhvør reisi þá upp aptur, komist úr sporunum ad eigin ramleik, og ekki heldur, séu þeir lagdir útaf, aptur reist sig vid; heldur leggja menn fyrir þá gáfur eins og fyrir dauda. 27. Þeirra fórnir selja prestar þeirra og brúka; og sømuleidis salta prestskonurnar nokkud af þeim, og géfa hvørki fátækum né veikum þar nokkud af. 28. Óhreinar konur og sængur konur snerta þeirra fórnir. Þar ed þér nú af þessu sjáid, ad þeir eru eingir gudir, svo óttist þá ekki! — 29. Því hvørsvegna skyldu menn kalla þá gudi? Konur setja mat fyrir þessa silfur- gull- og tré-gudi, 30. og í þeirra húsum sitja prestarnir í rifnum klædum, med skornu hári og skéggi og berhøfdadir. 31. Þeir ýla og orga frammi fyrir sínum gudum, eins og margir gjøra vid útfør framlidinna. 32. Af þeirra klædum taka prestarnir nokkud til ad klæda med konur og børn. 33. Ekki megna þeir heldur, hvørt sem þeir reyna gott eda íllt af nokkrum manni, ad endurgjalda, ekki géta þeir heldur innsett Kóng, né afsett. 34. Sømuleidis géta þeir hvørki géfid aud né peninga. Heiti madur þeim einhvørju og haldi ekki, géta þeir ekki krafid þess. 35. Frá daudanum géta þeir eingann mann frelsad, ekki hjálpa þeir heldur þeim vanmáttuga móti þeim sterka. 36. Blindum manni géta þeir ekki veitt sjónina, og eingum manni hjálpad í neydinni. 37. Yfir ekkjur aumkvast þeir ekki, og munadarleysíngjum gjøra þeir ekkért gott. 38. Því steinum úr fjalli eru lík þessi úr tré gjørdu skurdgod, gullbúin og silfurbúin, og þeirra þjónar hljóta ad verda til skammar.

39. Hvørnig skyldu menn nú hugsa eda segja, ad þau væru gudir, þegar sjálfir Kaldeu-

V. 18. Þeir géta þó etc. Þeir: bjágudirnir þeirra: prestanna.

menn gjøra gis ad þeim? 40. Þegar þeir sjá, ad einhvør mállaus gétur ekki talad, svo fara þeir med hann til Bel, og bidja ad hann meigi fá málid, eins og hann gjæti skilid þad. 41. Og ekki géta þeir sagt vid þá (hjágudina) skilid, þó þeir viti, ad þeir hafa ekki skinbragd. 42. En konurnar sitja á vegunum, í bøndum, og brenna jurtir. 43. Þegar nú ein af þeim er tekin afsídis, af einhvørjum sem fram hjá fer, og hjá henni er legid, svo gjørir hún gis ad sinni nábúa konu, ad hún hafi ei feingid sømu sæmd sem hún, og hennar bønd hafi ei verid slitin.

44. Allt þad sem gjørist vid þá (hjágudina) er prettur (lýgi). Hvørnig skyldu menn þá segja, ad þeir væru Gudir? 45. Af hagleiksmønnum og gullsmidum eru þeir gjørdir; þeir verda ekki annad, enn þad, sem hagleiksmadurinn vill þeir verdi, 46. þeir sem þá tilbúa, lifa ekki leingi; hvørnig þá þeir, sem af þeim eru tilbúnir? 47. Þeir eptir skilja ad eins tál og skømm eptirkomendunum. 48. Því þegar strídi eda ógjæfa er yfir þá komin, svo rádgast prestarnir um hvør vid annan, hvar þeir skuli fela sig med þeim.

49. Hví skyldu menn þá ei eptir því taka, ad þeir eru eingir gudir, þegar þeir géta ei bjargad sér undan strídi og tjóni? 50. Því fyrst þeir eru úr tré, gullbúnir og silfurbúnir, svo má þar af sjá, ad þeir eru tál (lýgi). Øllum þjódum og Kóngum mun þad opinbert verda, ad þeir eru eingir gudir, heldur verk mannanna handa, og ekkért Guds verk er á þeim. 51. Hvørjum skyldi þá ei kunnugt vera, ad þeir eru aungvir gudir?

52. Því ekki setja þeir nokkurn Konúng yfir land, og ekki géfa þeir mønnunum regn. 53. Þeir skéra úr eingum málum milli þeirra, og verja ekki fyrir ránginndum, þared þeir eru orkulausir, því eins og krákur fløgra þeir milli himins og jardar. 54. Þegar eldur kviknar í húsi þessara guda, sem eru úr tré, gullbúnir og silfurbúnir, svo flýa þeirra prestar og bjarga sér; en þeir brenna upp þar inni, eins og bjálkarnir. 55. Þeir géta eingum Kóngi, né óvinum mótstødu veitt. Hvørnig skyldu menn þá ætla edur hugsa ad þeir væru Gudir? 56. Ekki géta heldur þessir Gudir úr tré, silfurbúnir og gullbúnir, varid sig fyrir þjófum og ræníngjum. 57. Þeir, sem fá þá á sitt vald, taka af þeim gullid og silfrid og afklæda þá, og taka þetta med sér; og þeir géta ei bjargad sjálfum sér. 58. Þess vegna er betra ad vera Kóngur, sem gétur sýnt hreysti sína, eda nytsamlegt húsgagn, sem eigandinn gétur brúkad, heldur enn slíkir lyga gudir, eda þá húss hurd, sem geimir þad sem í húsinu er, heldur enn slíkir lyga gudir; eda þá trésólpi í Kóngs høll, heldur enn slíkir lyga gudir.

59. Sólin, túnglid og stjørnurnar skína, og til nytsemi útsendar, eru þær hlýdnar. 60. Sømuleidis og eldíngin, þegar hún lætur sig sjá, þá er hún a) bersýnileg, sømuleidis vindurinn, hann blæs í sérhvørju landi. 61. Og þegar Gud býdur skýunum, ad fara yfir gjørvallann þann byggda heim, svo hlýdnast þau bodinu. 62. Einninn eldurinn, sem sendur verdur hér ad ofan, til ad eyda fjøll og skóga, hann gjørir þad sem bodid er, en þessir (hjágudir) eru hvørki ad útliti né mætti hinu líkir. 63. Því skal einginn madur hugsa né segja, ad þeir séu gudir, fyrst þeir eru hvørki megnugir um ad refsa, né ad veita mønnum velgjørdir. 64. Þared þér nú vitid, ad þeir eingir gudir eru, svo óttist þá ekki!

65. Því hvørki géta þeir formælt Konúngum né blessad þá. 66. Ekki heldur géta þeir sýnt þjódunum teikn á himninum; ekki,

V. 60. *a.* Adr: falleg ad sjá.

eins og sólin, géfid ljós, né, eins og túnglid, géfid birtu. 67. Dýrin eru betri enn þeir, þau sem géta flúid í fylsni og bjargad sér. 68. Á eingan hátt er oss þá augljóst, ad þeir séu gudir, óttist þá þess vegna ekki!

69. Því eins og fuglahræda í grasgardi gétur ekkért vaktad, svoleidis eru þeirra, úr tré gjørdu gudir, þeir silfurbúnu og gullbúnu. 70. Sømuleidis eru þeirra trégudir, þeir gullbúnu og silfurbúnu, líkir þyrni-búski í aldingardi, hvar á allslags fuglar setjast, eda líki, sem kastad er í myrkur. 71. Líka géta menn vitad þad, ad þeir eru eingir gudir, af purpuranum og skartinu, sem á þeim fúnar. Þeir verda og seinast uppetnir, og verda ad háding í landinu. 72. Betri er sá madur því, sem er réttvís og hefir eingin god; því hann mun vera lángt frá svívirdíngunni.

# Fyrri Makkabea Bókin.

## 1. Kapítuli.

Ríkisstjórn og daudi Alexanders Mikla. Stjórnarbyrjun Antíokuss gøfga, herfør hans til Egyptalands, og hardýdgi vid Gydínga.

1. Þad bar til, eptir ad Alexander a) Philippusson frá Makedoníu, var farinn frá Kittealandi, hafdi unnid orustur (margar) og sigrad Daríus b), Persa og Meda Konúng, þá gjørdist hann Konúngur í hans stad, en hafdi ádur verid Kóngur (ad eins) yfir Grikklandi. 2. Hann hádi margar orustur, tók margar víggyrdtar borgir, og slátradi Konúngum jardarinnar. 3. Hann ód yfir, allt ad jardarinnar endimørkum, og tók herfáng af mørgum þjódum, og einginn þordi ad anda móti honum; þá stærdi hann sig, og hjarta hans ofmetnadist. 4. Hann safnadi óvígum her, og drottnadi yfir løndum og þjódum og Konúngum, og þeir urdu honum skattgyldir. 5. Og eptir þetta lagdist hann veikur í rúmid, og fann, ad hann mundi deya. 6. Þá kalladi hann á gjædínga sína, sem vóru fóstbrædur hans frá barnæsku, og skipti ríkinu á milli þeirra í lifanda lífi. 7. Alexander ríkti í 12 ár, og dó sídan. 8. En þjónar hans drottnudu, hvør í sínu héradi. 9. Allir tóku þeir Kóngstign eptir dauda hans, og nidjar þeirra eptir þá í mørg ár, og þeir unnu mikid íllt á jørdunni. 10. Af þeim kom íllmennid Antíokus hinn gøfgi (Epífanes), sonur Antíokusar Konúngs, sem verid hafdi gisli í Rómaborg; hann vard Kóngur á 137da ári Grikkjaríkis. 11. Um þessar mundir tóku sig til (ýmsir) órádvandir Ísraelsmenn, tøldu um fyrir mørgum, og søgdu: vér skulum fara og gjøra sáttmála vid heidíngjana, sem búa íkríngum oss, því sídan vér slitum félag vid þá, hefir margt íllt drifid á dagana. 12. Þetta tal gédjadist þeim vel, 13. og sumir af fólkinu vóru svo fúsir til þessa, ad þeir fóru til Kóngsins, og gaf hann þeim leyfi til ad taka upp heidíngja sidu. 14. Þá bygdu þeir leikskála í Jerúsalem, ad heidíngja sid. 15. Þeir hyrdtu ekki um umskurnina, og féllu frá þeim heilaga sáttmála, løgdu lag sitt vid heidíngja, og voru ofurseldir illri breytni.

16. Þegar ríki Antíokusar var ordid stad-

V. 1. *a.* Alexander Mikli. *b.* Daríus Kodomannus.

fast, ásetti hann sér að verða Kóngur í Egyptalandi, svo hann gjæti drottnað yfir báðum ríkjunum. 17. Hann fór því til Egyptalands með mikinn her, vagna, fíla, riddara og mikinn skipastól, 18. lagði hann til orustu við Tólómeus a) Egyptalands Konúng, en Tólómeus varð hræddur fyrir honum og flýði; féllu þar margir særðir. 19. Þeir tóku víggyrðtar borgir í Egyptalandi, og hann rænti Egyptaland herfángi. 20. Síðan snéri Antíokus tilbaka, eptir að hann hafði unnið Egyptaland, á 143 ári, og fór á móti Israel, og til Jerúsalem með voldugann her, 21. gékk hann drembilega inní helgidóminn, tók gullaltarið, ljósahjálminn og øll hans áhøld, 22. skoðunarbrauða borðið, dreypifórnar bollana, skálarnar og gullskeiðarnar, fortjaldið og kransana og gullbúnaðinn í musterinu, og rupladi øllu. 23. Hann tók líka silfur og gull og dýrmæta gripi; einnin tók hann fólgna fjársjóðu sem hann fann. 24. Og sem hann hafði tekið allt þetta, fór hann heim í sitt land, framdi morð, og var mjøg drambsamur í tali. 25. Þá var mikil hrygð yfir Israel, allstaðar hvar þeir voru. 26. Þá andvørpuðu høfðíngjarnir og hinir øldruðu, meyar og ýngismenn sýktust, og fríðleiki konanna umbreyttist. 27. Sérhvør brúðgumi hóf upp sorgargrát, og sú sem sat í brúðarsalnum var hrygg. 28. Landið skálf yfir þeim sem í því bjuggu, og øll Jakobs ætt var íklædd smán. 29. Að liðnum tveimur árum sendi Kóngurinn gjaldkéra sinn til Júðeu borga, hann kom til Jerúsalem með voldugann her, 30. talaði hann friðsamlega við þá (borgarmenn), en þar bjuggu svik undir, þeir trúðu honum, en hann réðist á borgina voseiflega, gjørði henni stórtjón, og afmáði fjølda fólks af Israel. 31. Hann rænti staðinn, lagði eld í hann, reif niður húsin í honum og gyrðíngarnar kríngum hann. 32. Þeir hertóku konur og børn, og slóu eign sinni yfir fénaðinn; 33. bygðu stóra og sterka gyrðíng íkríngum Davíðs borg, og rambyggilega turna, og høfðu hana fyrir vígi. 34. Þángað settu þeir syndugа þjóð, óráðvanda menn, og réðu øllu í henni (borginni). 35. Þángað létu þeir vopn og vistir, søfnuðu saman herfánginu í Jerúsalem og løgðu það þar og giørðu mikið íllt af sér. 36. Þetta varð helgidóminum að umsátri, og Israelsmønnum íllur fjandi æfinlega. 37. Þeir úthelltu saklausu blóði umhverfis helgidóminn, og saurguðu helgidóminn. 38. Jerúsalems innbúar flýðu søkum þeirra, og hún (Jerúsalem) varð bústaður útlendínga, hún varð framandi fyrir afkvæmum sínum, og børn hennar urðu að yfirgéfa hana. 39. Helgidómur hennar varð gjørsamlega í eyði, hátíðir hennar breyttust í sorg, helgidagar hennar urðu bríxlisefni, og heiður hennar að vanheiðri. 40. Eins og hún hafði áður verið dýrðleg, eins margfaldaðist vanvirða hennar, og upphefð hennar breyttist í sorg.

41. Og Antíokus Kóngur skipaði bréflega um allt sitt ríki, að allir skyldu vera ein þjóð, 42. og að sérhvør skyldi hafna sínum lagareglum, og allar þjóðir tóku því vel eptir boði Kóngsins. 43. Mørgum af Israelsmønnum gédjaðist vel hans goða dýrkun, þeir færðu goðum fórnir, og vanhelguðu hvíldardaginn. 44. Kóngurinn sendi líka sendimenn með bréf til Jerúsalem og Júdeuborga, (og bauð) að haga sér eptir lagareglum þeirra útlendu (sem vóru) í landinu; 45. og bægja brennifórnum, slátursfórnum og dreypifórnum úr helgidóminum, og vanhelga hvíldardaga og hátíðir, 46. og saurga helgidóminn og þá heiløgu, 47. að byggja

V. 18. a. Tólómeus Filometor.

ölturu, offurlunda og godahof, offra svínakjöti og óhreinum dýrum, 48. og ad láta börn þeirra vera óumskorin, svo þeir gjördu sálir sínar vidbjódslegar med allskonar óhreinleik og saurgun, 49. til ad gleyma lögmálinu og umhverfa öllum réttindum. 50. Og hvör sem ekki hlýddi bodi Kóngsins, skyldi vera dræpur. 51. Samkvæmt öllu þessu skrifadi hann um allt ríki sitt, og setti umsjónarmenn yfir allann lýdinn, og skipadi Júdeu borga innbúum ad offra í sérhvörri borg. 52. Margir af lýdnum þyrptust til þeirra, sérhvör sem hafnadi lögmálinu, og adhöfdust íllt í landinu. 53. Þeir neyddu Israelsmenn til ad fela sig, hvar sem þeir gátu leitad hælis. 54. Á fimtánda degi í mánudinum Kaselev á 145ta ári, reistu þeir vidurstygd eydileggíngarinnar á altarinu, (Dan: 11, 31), og í Júdeu borgum allt um kríng bygdu þeir ölturu, 55. og offrudu reykélsi fyrir húsdyrum og á strætunum, 56. og lögmáls bækurnar sem þeir fundu, rifu þeir sundur og brenndu í eldi, 57. og hvar sem sáttmálsörkin fannst hjá einhvörjum, og ef einhvör hafdi mætur á lögmálinu, þá gékk daudadómur Konúngsins yfir hann, 58. þvílíkt ofbeldi sýndu þeir Israelsmönnum, sem fundnir urdu á sérhvörjum túnglkomu degi í borgunum. 59. Á tuttugasta og fimta degi mánadarins offrudu þeir á altarinu, sem þeir höfdu reist uppi á brennifórnar altarinu. 60. Konurnar, sem umskorid höfdu börn sín, myrdtu þeir, einsog skipad var. 61. Þeir heingdu úngbörnin upp á hálsunum, rændu hús þeirra, og drápu þá sem höfdu umskorid þau. 62. En margir af Israelsmönnum voru stödugir, og höfdu einsett sér ad borda ekki óhreina fædu, 63. og kusu ad deya, svo þeir saurgudust ekki á mat, né vanhelgudu hinn heilaga sáttmála, og þeir létu lífid. 64. Og reidi lá yfrid þúngt á Israelsmönnum.

## 2. Kapítuli.

*Vandlæting og daudi Mattatíasar prests.*

1. Um þær mundir tók Mattatías Jóhannesar son, Símonssonar, prestur, af Jóaribs nidjum, (1 Krb. 24, 7.) sig upp frá Jerúsalem, og settist ad í (stadnum) Módin. 2. Hann átti 5 syni: Jóhannes, ad vidurnefni Kaddis, 3. Símon, sem kalladur var Tassi, 4. Júdas, ad auknafni Makkabeus, 5. Eleasar, ad auknafni Avaras, Jónatan ad auknafni Affus. 6. Hann sá gudlastid, sem vidgékkst í Júdeu og Jerúsalem. 7. Og hann sagdi: æ mig auman! hvar fyrir er eg fæddur tilad horfa á þetta, á undirokun þjódar minnar, og ófarir hinnar helgu borgar, og ad sitja hér, er hún lendir í óvina höndum, og helgidómurinn í höndum útlendínga? 8. Musterid er ordid eins og ótiginn madur. 9. Hennar (borgarinnar) dýrdlegu áhöldum er rænt og þau burtuflutt, úngbörnin hafa verid myrdt á götunum, og ýngismennirnir med óvinarins sverdi. 10. Hvílík þjód drottnar ekki yfir henni og hefir rænt herfángi úr henni? 11. Hún er svipt allri sinni prýdi, hún var frjáls, en er nú ordin ánaudug; 12. og sjá! þad er ekkért ordid úr helgigripum vorum, fegurd vorri og vegsemd, heidíngjarnir hafa vanhelgad þad. 13. Til hvörs er oss ordid ad lifa? 14. Og Mattatías og synir hans rifu klædi sín, klæddu sig í hárklædi og hörmudu mjög. 15. Þá komu sendimenn frá kónginum, sem naudgudu (fólki) til ad falla frá, til stadarins Módin, og ætludu ad offra. 16. Margir af Israelsmönnum fóru til þeirra, og Mattatías og synir hans vóru líka fluttir þángad. 17. Sendimenn kóngsins tóku þá til máls, ávörpudu Mattatías, og sögdu: Þú ert höfdíngi virdtur og voldugur í þessum stad, því þú átt syni og ert frændmargur. 18. Kom þú nú fyrstur fram, og hlýd bodi kóngsins, einsog allir heidíngjarnir hafa gjört, og Júdeu menn, og þeir

sem eptir eru í Jerúsalem; þá munt þú og ætt þín komast í vináttu við kónginn, og þú og synir þínir munu sæmdir verða með silfri og gulli og mørgum gáfum. 19. Mattatías svaraði, og sagði með hárri røddu: þóað allar þjóðir í (sérhvørju) húsi kóngsins ríkis hlýði honum, svoað sérhvør hafni guðsdýrkun feðra sinna, og aðhyllist boð hans (kóngsins), 20. þá skal eg samt, og synir mínir og ættíngjar halda við sáttmála feðra vorra. 21. Guð varðveiti okkur frá að yfirgéfa løgmálið og réttindin! 22. Munum vér því ekki hlýðnast boðum kóngsins, að víkja frá guðsdýrkun vorri til hægri eða vinstri. 23. Þegar hann hafði þannig um mælt, gékk Gyðíngur nokkur fram fyrir allra augum, tilað offra á altarinu í Móðin eptir boði kóngsins. 24. Þegar Mattatías sá þetta, fyltist hann af vandlætíngu, innífli hans skulfu (hann varð reiður) og hugur hans hvattist til hefnda; hann hljóp til, og drap hinn hjá altarinu, 25. og konúngsmanninn, sem var að neyða menn til að offra, drap hann samstundis og reif alltarið niður. 26. Og hann vandlætti vegna løgmálsins, einsog Píneas hafði gjørt við Samri Saluson, (4 Mós. 25, 14). 27. Og Mattatías kallaði með hárri røddu um staðinn, og sagði: hvør sem ann løgmálinu, og heldur sáttmálann, hann fari út á eptir mér. 28. Og hann og synir hans flúðu uppá fjøllin, og yfirgáfu allt sem þeir áttu í borginni. 29. Þá fóru margir, sem unnu réttvísi og ráðvendni, útá eyðimørk til að dveljast þar, 30. þeir og børn þeirra, og konur þeirra, og kvikfénaður, því margføld ógjæfa var komin yfir þá. 31. Þá fréttu kóngsmennirnir og liðið sem var í Jerúsalem, Davíðs borg, að nokkrir menn sem hefðu brotið boðorð konúngsins, væru farnir útá eyðimørk til að fela sig þar; 32. Margir eltu þá, og þegar þeir náðu þeim, réðust þeir á þá, og løgðu til orustu við þá á hvíldardegi. 33. Og þeir søgðu við þá: nógur er tíminn ennþá, farið og hlýðið boði konúngsins, þá skuluð þér halda lífi. 34. Þeir svøruðu: ekki munum vér útfara, né hlýða boði kóngsins, að vanhelga hvíldardaginn. 35. Þá løgðu hinir skjótt til orustu móti þeim. 36. Þeir svøruðu þeim ekki, køstuðu ekki steini á þá, og byrgðu ekki holurnar (sem þeir vóru í), 37. en søgðu: vér viljum allir deya í meinleysi voru, himin og jørð skal bera oss vitni, að þér drepið oss ránglega. 38. Síðan veittust þeir að þeim með stríði á hvíldardeginum, og féllu þeir, konur þeirra og børn og kvikfénaður, næstum því þúsund manns. 39. Mattatías og vinir hans urðu þessa vísir, og hørmuðu mjøg yfir þeim. 40. Þá sagði hvør við annan: ef vér breytum allir, einsog bræður vorir breyttu, og berjumst ekki við heiðíngjana fyrir líf vort og réttindi vor, þá tekst þeim því fljótar að afmá oss af jørðunni. 41. Þá tóku þeir saman ráð sín á þeim sama degi, og søgðu: hvør sem veitir oss aðfør á hvíldardøgum, við hann skulum vér berjast, svoað vér deyum ekki, einsog bræður vorir dóu í hellrunum. 42. Síðan safnaðist að þeim fjøldi Gyðínga, þeir vøskustu af Ísraelsmønnum, sérhvør sem fús var a) (að hlýða) løgmálinu. 43. Og allir þeir sem flúðu undan ólukkunni, bættust við þá, og juku þeim styrk, 44. fylktu þeir nú liði, og drápu guðleysíngjana í reiði sinni, og yfirtroðslumenn løgmálsins í bræði sinni, en þeir sem af komust, flúðu til heiðíngjanna, að bjarga lífinu. 45. Og Mattatías fór hrínginn í kríng, og áhángendur hans, og rifu niður ølturun, 46. og umskáru með valdi børnin, sem þeir fundu óumskorin innan Ísraels landamerkja, 47. og ofsóktu hina dramblátu, og vannst þeim vel. 48. Þeir frelsuðu løgmálið úr høndum heiðíngjanna og kónganna, og létu ekki illmennið hafa yfirhønd.

V. 42. *a.* Aðrir: sem þorði að hlýða.

49. Nú var Mattatías ordinn ellihníginn,
og átti skamt eptir, þá mælti hann vid syni
sína: nú er ofríkid ordid magnad, og þrautin
og eydileggíngar tíminn, og heiptin: 50.
vandlætid því, børnin mín! fyrir løgmálid, og
hættid lífi ydar fyrir sáttmála fedra vorra.
51. Hafid í minni fedur vora, verkin sem
þeir unnu á sinni tíd, og ávinnid ydur
mikla frægd og ævarandi ordstýr. 52.
Reyndist ekki Abraham trúgódur í freystíng-
unni, og var þad ekki reiknad honum til rétt-
lætis? 55. Jósep vardveitti bodordid á neyd-
ar tíd sinni, enda vard hann herra yfir E-
gyptalandi. 54. Þegar forfadir vor Pineas
vandlætti alvarlega, ødladist hann sáttmála um
ævarandi prestsembætti. 55. Af því Jósúa
hlýddi algjørlega því sem honum var skipad,
vard hann dómari yfir Israel. 56. Af því
Kaleb vitnadi skøruglega fyrir fólkinu, fékk
hann arf (hlutskipti) í landinu. 57. Vegna
mildi sinnar erfdi Davíd ævarandi Konúngs
tign. 58. Af því Elías vandlætti kroptug-
lega fyrir løgmálid, vard hann uppnuminn til
himins. 59. Ananías, Asaría og Misael
urdu frelsadir úr eldsloganum, af því þeir
treystu (Gudi) a). 60. Vegna sakleysis síns
vard Daníel hrifinn úr gini ljónanna. 61.
Athugid þannig hvørn mannsaldurinn eptir
annann, (svo ydur skiljist) ad allir sem á hann
vona munu ei vanmegnast. 62. Verid ekki
hræddir vid syndugs manns ord, því dýrd
hans verdur ad skarni og ormum; 63. Í dag
mun hann upphefja sig, en á morgun finnst
hann ekki, því hann er (þá) aptur ordinn ad
jørdu, og ásetníngur hans ad eingu. 64.
Verid, børnin gód! hraustir, og verjid løgmálid
kallmannlega, því fyrir þad munud þér ødlast
vegsemd. 65. Og sjáid! eg veit ad Símon
bródir ydar er ráddeildarmadur, hlýdid honum
jafnan, hann veri ydur sem fadir. 66. Og
Júdas Makkabeus hefir verid hraustmenni frá
barnæsku, hann skal vera ydar lidsforíngi, og
heya stríd vid þjódirnar b). 67. Safnid ad
ydur øllum þeim sem halda vid løgmálid, og
hefnid duglega þjódar ydvarrar. 68. Endur-
gjaldid heidíngjunum ad maklegleikum, og géfid
gaum løgmálsins bodum. 69. Sídan blessadi
hann þá, og var lagdur til fedra sinna. 70.
Hann andadist á 146ta ári, og synir hans
jørdudu hann í grøfum fedra þeirra í Módin,
og allir Israelsmenn hørmudu hann mjøg.

## 3. Kapítuli.

Afreksverk Júdasar Makkabeuss.

1. Júdas, sonur hans, sem nefndist Makka-
beus, gékk nú í hans stad. 2. Allir brædur
hans veittu honum lid, og allir sem verid høfdu
í fylgd med fødur hans, og børdust þeir fyrir
Israelsmenn med gledi. 3. Hann efldi heid-
ur þjódar sinnar, klæddist brynju, eins og
hetja, gyrdtist hertýgjnm sínum, hádi stríd,
og vardi lid sitt med sverdi. 4. Hann líktist
ljóni í verkum sínum, og ljónsúnga, sem økr-
ar eptir brád. 5. Hann leitadi eptir þeim
ránglátu og ofsókti þá, og brenndi þá, sem
áreittu þjód hans. 6. Þeir ránglátu eingdu
sig saman af ótta fyrir honum, og allir sem
frømdu óréttindi, skélfdust, og sigur vannst fyrir
hønd hans. 7. Hann ángradi marga Kon-
únga, en gladdi Jakob (Jakobs nidja) med
verkum sínum, og minníng hans verdur blessud
til eilífdar. 8. Hann fór um Júdeu borgir
og afmádi þá ógudlegu í þeim, og snéri reid-
inni (ógjæfunni) frá Israel. 9. Hann vard
nafnkunnur allt til ystu takmarka landsins, og
safnadi þeim tortýndu.

10. Þá safnadi Apollónius heidíngjum, og
miklum her frá Samaríu, til ad berjast vid

V. 59. a. Adr: héldu einurd sinni. V. 66. b. Adr: strída fyrir fólkid.

Israelsmenn. 11. Þegar Júdas varð þess vís, rédist hann móti honum, sigradist á honum og drap hann, margir féllu þar af sárum, en hinir flýdu. 12. Rænti hann sídan valinn; og Júdas tók sverd Apolloniusar, og brúkadi það jafnan í orustum.

13. Nú frétti Seron, høfdíngi yfir Sýrlands her, að Júdas hefdi safnad flokk, og ad fjøldi trúfastra manna væri med honum í hernadi, 14. þá sagdi hann: nú skal eg vinna mér til sæmdar, svo eg verdi vídfrægur í ríkinu, skal eg berjast vid Júdas og þá sem med honum eru, sem forsmá Konúngsins bod. 15. Sídan tók hann sig upp, fylgdi honum øflugur her gudlausra manna, til lidveitslu vid hann, og til ad hefnast á Israels nidjum. 16. Þeir komu til Betóron, þá fór Júdas móti þeim vid fáa menn. 17. En þegar þeir sáu lidid sem fór ámóti þeim, søgdu þeir vid Júdas: hvørnin ætli ad vér getum, svo fáir, barist vid þvílíkann fjølda einvalalids! nú erum vér líka vanmegna, því vér høfum ekki matast í dag. 18. Júdas sagdi þá: hæglega gétur þad skéd, ad fáir géti kreppt ad mørgum, og himnanna Gudi er eins hægt ad frelsa med fáum eins og med mørgum. 19. Því ad sigursæld í strídi er ekki komin undir lidsfjølda, heldur kémur styrkleikinn af himni. 20. Þeir koma til vor med miklum ofsiopa og rángsleitni til ad afmá oss, konur vorar og børn, til ad ræna oss; 21. En vér hljótum ad berjast fyrir lífi voru og réttindum vorum. 22. Hann (Gud) mun gjøra útaf vid þá ad oss ásjáandum, verid óhræddir vid þá. 23. Ad svo mæltu rédist hann skjótlega á þá, Seron og lid hans flýdi fyrir honum (Júdasi). 24. Þeir eltu hann ofaneptir gøtunum frá Betóron, allt ad sléttlendinu, þar féllu af þeim eitthvad 800 manns, en hinir flúdu í Filistea land. 25. Þá fór ótti og hrædsla fyrir Júdasi og brædrum hans, ad koma yfir heidíngjana, sem bjuggu kríngum þá. 26. Og ordstýr hans barst til Konúngsins, og sérhvør þjód sagdi frá Júdasar orustum.

27. En þegar Antíókus Konúngur frétti þessa vidburdi, vard hann fokreidur, sendi menn, og safnadi saman øllu lidi í ríki sínu, vard þad óvígur her; 28. hann opnadi fjárhyrdslu sína, og gaf lidi sínu mála til heils árs, en skipadi þeim ad vera vidbúnum, hvønær sem álægi. 29. Sá hann nú, ad skotsilfur fór ad vanta í fjárhyrdslurnar, því skattar voru fáir í landinu, søkum óeyrda þeirra og tjóns, er hann hafdi bakad laudinu, til ad afmá þær lagareglur sem vidgeingist høfdu frá fornøld. 30. Vard hann því hræddur um, ad hann hefdi ekki nóg til þvílíks kostnadar, og gjafa, sem hann hafdi ádur veitt med ørlátri hendi, því hann hafdi verid ørlátari enn Kóngarnir á undan. 31. Var hann nú í miklum vandrædum med sjálfum sér, en rédi af, ad fara til Persíu, taka skatta af løndunnm, og safna miklu fé. 32. Skyldi hann Lysías eptir, týginn mann og af Konúngsætt, til ad gégna størfum Konúngsins frá fljótinu Evfrat til Egyptalands takmarka. 33. Hann átti líka ad fóstra son hans, Antíókus, þángad til hann kjæmi aptur. 34. Hann fékk honum helmínginn af lidi sínu, og fílana og gaf honum skipun vidvíkjandi øllu, sem hann vildi, og vidvíkjandi þeim sem bjuggu í Júdeu og Jerúsalem, 35. ad hann skyldi senda her á móti þeim, til ad eydileggja og afmá Israels styrk, og þá sem eptir voru í Jerúsalem, og afmá minníngu þeirra úr þeim stad, 36. og ad menn af ødrum ættum skyldu búa í øllum hérødum þeirra, og skyldi hann úthluta þeim landi hinna. 37. Konúngur tók med sér hinn helmínginn sem eptir var af hernum, og fór frá Antiokíu, konúngsborg sinni, á 147da ári, hann fór yfir fljótid Evfrat, og ferdadist um hin efri hérød. 38.

En Lysías útvaldi Tólómeus Dorymenesar son, og Nikanor og Gorgias, vóru þeir miklir menn og handgeingnir konúngi; 39. Med þeim sendi hann fjørutíu þúsundir fótgaungulids, og sjø þúsund riddara, skyldu þeir fara til Júdeu lands, og eyda þad, eptir bodi kóngsins. 40. Þeir fóru af stad med allt sitt lid, komu, og settu herbúdir nálægt Emaus, á sléttlendinu. 41. Þegar kaupmennirnir í héradinu heyrdu um þá gétid, tóku þeir ofur fjár í silfri og gulli, og þénara a) og fóru til herbúdanna til ad fá Israelsmenn fyrir þræla; bættist nú vid þá lid frá Sýrlandi og ødrum løndum. 42. Nú sá Júdas og brædur hans, ad ógjæfan fór í vøxt, og ad herinn lá vid landamerki þeirra, líka var þeim ordin kunnug skipun Kóngsins, hvørnin hann hafdi bodid ad fara med fólkid, til ad afmá þad og uppræta. 43. Þá sagdi hvør vid annann: vér skulum rétta vid hag vorrar naudbeygdu þjódar, og berjast fyrir vort fólk, og helgidóminn. 44. Søfnudurinn kom nú til samans, til ad vera reidubúinn til strídls, og ad bidja, og æskja nádar og miskunar. 45. Þá var Jerúsalem óbygd, eins og eydimørk, einginn af børnum hennar gékk þar út eda inn, helgidómurinn var fóttrodinn, útlendra synir sátu í víginu, þad var ordid heidíngja bústadur, Jakob var gledi fyrtur, hljódpípur og hørpur voru aflagdar. 46. Þeir søfnudust nú, og komu til Mispa, gégnt Jerúsalem, því ádur hafdi Mispa verid bænastadur Israelsmanna. 47. Þennann sama dag føstudu þeir, klæddu sig í hárklædi, jusu mold yfir høfud sér, og rifu klædi sín. 48. Og þeir flettu í sundur løgmálsbókinni, en heidíngjarnir leitudu eptir þeim (løgmálsbókunum) til ad mála í þær godamindir sínar. 49. Þeir komu líka med presta skrúdann, og frumgródann og tíundirnar, og samankølludu heitbrædurna, sem fullkomnad høfdu (helgunar) dagana. 50. Þá hrópudu þeir til himins, og søgdu: hvad eigum vér ad gjøra af þessum (helgidómum), og hvørt eigum vér ad flytja þá? 51. Því helgidómur þinn er fóttrodinn og vanhelgadur og prestar þínir eru í sorg og nidurlægíngu. 52. Og sjá þú! heidíngjarnir hafa safnast á móti oss, til ad afmá oss, þú veitst hvad þeir hugsa oss. 53. Hvørnig gétum vér stadist fyrir þeim, nema þú hjálpir oss? 54. Sídan blésu þeir í lúdra, og hrópudu med hárri raustu. 55. Og eptir þetta setti Júdas fyrirlida yfir fólkid, þúsunds høfdíngja, hundrads høfdíngja, fim tuga høfdíngja og tugarhøfdíngja. 56. Og þeir søgdu þeim, sem voru ad byggja sér hús, fastna konur, planta víngarda, og þeim sem hræddir voru, ad sérhvør þeirra skyldi hverfa heim til sín, samkvæmt løgmálinu. 57. Sídan fór lidid af stad, og setti herbúdir ad sunnanverdu vid Emaus. 58. Þá sagdi Júdas: hertýgid ydur, og verid røskir dreingir, og reidubúnir snemma á morgun til ad berjast vid þessa heidíngja, sem safnast hafa móti oss, til ad afmá oss og vorn helgidóm; 59. því betra er oss ad falla í orustu, enn ad horfa á ófarir þjódar vorrar og helgidómsins. 60. En þad sem Gud á himnum vill, mun koma framm.

## 4. Kapítuli.

Sigurvinníngar Júdasar. Musteris hreinsunin.

1. Gorgias tók med sér fim þúsund (fótgángandi) menn, og þúsund útvalda riddara, og fór her þessi af stad um nóttina, 2. til ad rádast á herbúdir Gydínga, og sigra þá óvidbúna; og þeir sem voru í víginu, vísudu honum veg. 3. Þetta frétti Júdas; hann fór af stad, og þeir sem færir voru, til ad vinna

V. 41. *a.* Þénara, edr: sjøtra.

herlid Kóngsins, þad sem var í Emaus, 4.
á medan herinn var vídt og dreift frá herbúd-
unum. 5. Gorgias kom nú um nóttina í
herbúdir Júdasar, en fann eingann, þá fór
hann ad leita þeirra uppi á fjøllunum, því
hann sagdi: þeir flýa fyrir oss. 6. Og strax
í døgun sást Júdas á sléttlendinu med þrjú
þúsund manns, en þeir høfdu ekki hlífar og
sverd eins (mørg) og þeir vildu. 7. Þeir
sáu nú, heidíngjanna volduga her, ad hann
var brynjadur, og riddaralid allt í kríng, og
ad þeir kunnu vel til stríds. 8. Þá sagdi
Júdas vid sína menn: óttist þá ekki, þó þeir
séu margir, og hrædist ekki árás þeirra. 9.
Minnist þess, hvørnig fedur vorir urdu frels-
adir í rauda hafinu, þegar Faraó veitti þeim
eptirfør med herlidi. 10. Og nú skulum vér
hrópa til himins, ef hann (Gud) kynni ad misk-
una oss, og minnast sáttmálans vid fedur
vora, og gjøra útaf vid þennann her í dag, ad
oss ásjáendum. 11. Þá skulu allir heidíng-
jar fá ad vita, ad hann er sá, sem endurleys-
ir og frelsar Ísrael. 12. Nú upphófu útlend-
íngarnir augu sín, og sáu, ad þeir komu móti
þeim, 13. þá fóru þeir útúr herbúdunum til
bardaga, en Júdasar menn blésu í lúdra. 14.
Hófst nú orustan; urdu heidíngjar illa leiknir,
og flúdu ofaná sléttlendid; 15. en þeir øpt-
ustu féllu allir fyrir sverdi; ráku þeir flóttann
allt ad Gaseron, og Edoms vøllum, og Asdod
og Jabne, féllu þar af þeim (óvinunum) eitt-
hvad þrjú þúsund manns. 16. Sídan snéri
Júdas og lid hans aptur, og nenntu ekki ad
elta þá leingur. 17. Þá sagdi hann vid fólk
sitt: látid ydur ekki hugleikid ad ná herfánginu,
því vér eigum orustu fyrir høndum; 18. hann
Gorgias og lid hans er þarna uppi á fjøllun-
um, skamt frá okkur. En standid ydur nú
móti óvinum ydar, og berjist vid þá, og ad
því búnu meigid þér taka herfángid ugglausir.
19. Medan Júdas var ad tala þetta, sást
nokkur hluti (lidsins) sem gjægdist fram af
fjøllunum. 20. Hann (Gorgías) sá, ad þeir
høfdu verid reknir á flótta, og ad þeir (Gyd-
íngarnir) voru ad brenna herbúdirnar, þvíad
reykurinn sem sást, lýsti því sem skéd hafdi.
21. En þegar þeir sáu þetta, urdu þeir laf-
hræddir; og þegar þeir sáu líka Júdasar her
á vellinum, búinn til bardaga, 22. þá flúdu
þeir allir til annara landa. 23. En Júdas
hvarf aptur til ad ræna herbúdirnar, og feingu
þeir mikid gull og silfur, silki, sjáfar-purpura,
og mikid góts. 24. Snéru þeir nú til baka,
súngu og vegsømudu Drottinn á himni, af því
þeim hafdi geingid svo vel, søkum þess misk-
un hans varir til eilífdar. 25. Á þessum
degi ødladist Ísrael mikilsverda frelsun. 26.
En þeir af útlendíngunum sem komist høfdu
af, fóru til fundar vid Lysías, og søgdu hon-
um allt sem gjørst hafdi. 27. En sem hann
frétti þad, vard hann ángurvær og huglaus,
af því ekki hafdi farid fyrir Ísraelsmønnum
eins og hann vildi og (herførin) ekki tekist, eins
og Kóngurinn hafdi skipad honum. 28. Lysí-
as safnadi þar fyrir á næstkomandi ári sextíu
þúsundum útvaldra strídsmanna, og fim þús-
undum riddara til ad herja á þá. 29. Þeir
komu til Idumeu, og settu herbúdir vid Bet-
súru, kom Júdas á móti þeim vid tíu þúsund
manns, 30. og þegar hann sá hinn óvíga
her, badst hann fyrir og sagdi: lofadur sért
þú, Lausnari Ísraels, þú sem ónýttir árásir
hins sterka fyrir hønd þjóns þíns Davíds,
og gafst útlendínganna her í hendur Jónatans
Sálssonar og skjaldsveins hans. 31. Gef þú
nú þennann her á vald Ísraels, þíns lýds,
og láttu þá verda til skammar med lid sitt og
riddara. 32. Skjóttu þeim skélk í brjóst, og
lækkadu drambid í þeim yfir lidsafla sínum
svo ad þeir skjálfi í vandrædum sínum. 33.

Legg þú þá vid velli med sverdi þeirra sem elska þig, svo ad allir, sem þekkja nafn þitt, vegsami þig med lofsaungum. 34. Sídan tókst orustan, og féllu af Lysíasi hérumbil fim þúsund manns, rétt gagnvart þeim. 35. En þegar Lysías sá, ad flótti var brost-inn í lid hans, en ad Júdasar lid var hugad, og ad þeir vóru reidubúnir til ad lifa eda deya med sæmd, þá fór hann til Antíokíu, og safn-adi leigu-her; og þegar hann hafdi aflad ó-grynni hers, ásetti hann sér ad fara aptur til Júdeu. 36. En Júdas og brædur hans søgdu: sjá! óvinir vorir eru sigradir, látum oss fara og hreinsa helgidóminn, og vígja hann aptur. 37. Þá safnadist allur herinn, og þeir fóru upp á Síonsfjall; 38. sjá þeir nú ad helgi-dómurinn var eydilagdur, altarid vanhelgad, borgarhlidin brend, gángbogarnir kvistum vaxn-ir, einsog í skógi eda á fjalli, og herbergin rifin nidur. 39. Þá rifu þeir klædi sín, syrgdu á-kaflega, og jusu mold yfir høfud sér; 40. féllu á ásjónur sínar til jardar, blésu í merki-lúdra, og hrópudu til himins. 41. Og Júdas skipadi menn til ad berjast vid þá, sem vóru í víginu, þángad til hann væri búinn ad hreinsa helgidóminn. 42. Hann útvaldi vandada presta sem unnu løgmálinu. 43. Þeir hreinsudu helgidóminn, og báru hina saurgudu steina á óhreinann stad. 44. Þeir rádgudust um brenni-fórnar altarid, sem búid var ad vanhelga, hvad þeir ættu ad gjøra vid þad; 45. hugkvæmdist þeim gott rád, nefnilega: ad rífa þad nidur, svo þad yrdi þeim aldrei til smánar, þared heidíngjarnir høfdu saurgad þad; sídan rifu þeir altarid nidur; 46. løgdu þeir steinana (úr altarinu) affsídis á fjallid, sem borgin stód á, á hæfilegann stad, þángad til einhvør spámad-ur kjæmi, sem gjæfi úrskurd um þá. 47. Síd-an tóku þeir óhøgna steina samkvæmt løg-málinu, og hlódu nýtt altari, einsog hid fyrra. 48. Líka endurbygdu þeir helgidóminn, og hús-id (musterid) ad innanverdu, og helgudu gáng-bogana. 49. Þeir bjuggu til ný helgidóms-áhøld, og settu ljósahjálminn, reykélsis altarid og bordid aptur í musterid. 50. Þeir offrudu reykélsi á altarinu, og kveiktu á pípunum í ljósa-hjálminum, svo bjart vard í musterinu, 51. løgdu braud á bordid, breiddu fortjaldid út, og luku vid øll sín størf, sem þeir høfdu unn-id. 52. Á tuttugasta og fimta degi hins ní-unda mánadar, sem heitir Kaselev, fóru þeir snemma á fætur, 53. og offrudu, samkvæmt løgmálinu á nýa brennifórnar altarinu, sem þeir høfdu búid til. 54. Á sama tíma, og á sama degi, sem heidíngjarnir høfdu vanhelgad þad, var þad vígt ad nýu, med saungum, hørp-um, hljódfærum og bumbum. 55. Og allur lýdurinn féll fram á ásjónu sína, badst fyrir og lofadi Gud á himnum, sem hafdi veitt þeim gjæfu. 56. Þeir héldu vígslu hátíd altarisins í átta daga, og offrudu brennifórnum med føgnudi, og færdu þakklætis- og lofgjørdar-fórn. 57. Þeir prýddu musterid ad framan-verdu med gullkrønsum og smáskjøldum, og bjuggu til ný hlid og herbergi med dyrum á. 58. Þá var frábær gledi medal fólksins, því smánin var horfin, sem heidíngjar høfdu gjørt þeim. 59. Þá áskildi Júdas og brædur hans, og allur Ísraels søfnudur, ad vígsludagar alt-arisins skyldu verda haldnir (hátídlegir) á réttum tíma ár hvørt, í átta daga frá hin-um tuttugasta og fimta degi í mánudinum Ka-selev med føgnudi og gledi. 60. Um sømu mundir bygdu þeir á Síonsfjalli hrínginn í kríng, háa garda og sterka turna, svo ad ef heid-íngjarnir kjæmu einhvørn tíma, þá skyldu þeir ekki fóttroda þetta, einsog þeir høfdu gjørt hid fyrra sinn. 61. Hann setti þar setulid til ad geyma þess, og þeir víggyrdtu Betsúru til ad gjæta þess, svo ad þjódin skyldi hafa vígi gégn Idúmeu.

## 5. Kapítuli.

Orustur bræðranna Júdasar, Jónatans og Símonar við ýmsar þjóðir. Ósigur Jóseps og Asariass.

1. Svo bar til, að þegar heiðíngjarnir allt í kríng fréttu, að búið væri að byggja altarið, og vígja helgidóminn einsog áður, þá urðu þeir afar reiðir, 2. og ráðgjørðu að afmá Jakobs ætt, þá sem vóru mitt á meðal þeirra, og fóru að myrða og afmá (þá) meðal fólksins. 3. Júdas barðist við Esaú niðja í Akrabattine í Idúmeu, því þeir høfðu umkríngt Ísraelsmenn; vann hann þeim stórtjón, sigraði þá, og rænti frá þeim herfángi. 4. Hann minntist illsku Beans niðja, sem høfðu verið fólkinu til táls og ásteytíngar, er þeir sátu um það við vegina. 5. Hann hneppti þá inní turna, og fór með her á móti þeim, bannfærði (afmáði) þá, og brendi turna þeirra í bjørtu báli, með øllum sem í þeim vóru. 6. Síðan héldt hann áfram til Ammons niðja, fann þar mikinn her og fjølda fólks, hét Tímoteus foríngi þeirra; 7. átti hann (Júdas) við þá margar orustur, og biðu þeir ósigur fyrir honum, því hann vann þá. 8. Hann tók borgina Jaser, og dætur hennar (staðina þar í kríng), fór síðan aptur til Júdeu. 9. Heiðíngjarnir, sem vóru í Galaad søfnuðust móti Ísraelsmønnum, sem vóru í landi þeirra til að afmá þá, en þeir flúðu í vígið Datema. 10. Þá skrifuðu þeir Júdasi og bræðrum hans svohljóðandi bréf: „heiðíngjarnir, sem búa allt í kríngum oss, hafa safnast móti oss, til að afmá oss. 11. Og þeir eru í tilbúníngi að koma og taka víggyrðínguna, sem vér flúðum í, og Tímóteus er liðsforíngi þeirra. 12. Kom þú því, og hríf oss úr høndum þeirra, því fjøldi er fallinn af oss. 13. Og allir bræður vorir, sem voru í Tobí, eru myrdtir; þeir hafa hertekið konur þeirra og børn, og góts, og drepið þar allt að því þúsund manns". 14. Á meðan verið var að lesa bréfin, komu aðrir sendimenn frá Galíleu, í rifnum klæðum, og báru søguna á þá leið: 15. søgðu, að (heiðíngjar) høfðu safnast móti þeim frá Tólómeu, Týrus og Sídon og øllum þeim hluta Galíleu, sem útlendíngar bygðu, til að afmá þá. 16. En þegar Júdas og fólkið heyrði þessar fréttir, þá var stefnd fjølmenn samkoma, til að ráðgast um, hvað þeir ættu að gjøra við bræður sína, sem nauðstaddir vóru, og ásóktir af þeim (heiðíngjunum). 17. Þá sagði Júdas við Símon bróður sinn: veldu sjálfum þér menn, og farðu og bjargaðu bræðum vorum í Galíleu, en eg, og Jónatan bróðir minn, munum fara til Galaaditis (Gílead). 18. Hann skildi eptir í Júdeu Jósep Sakaríasarson, og Asaríass, svo sem fyrirliða fólksins, ásamt þeim sem hann lét vera eptir af liðinu, til að gjæta þeirra. 19. Hann bauð þeim, og sagði: verið hjá fólkinu, og leggið ekki til orustu við heiðíngjana fyrri enn vér komum aptur. 20. Símoni úthlutuðust þrjú þúsund manns til að fara með í Galíleu, en Júdasi átta þúsund manns (til að fara með) til Galaaditis. 21. Símon fór til Galíleu, átti margar orustur við heiðíngjana, og biðu heiðíngjar ósigur fyrir honum, 22. elti hann þá allt að Tólómeu hliðum, féllu hérum þrjú þúsund manns af heiðíngjunum, og tók hann herfáng af þeim. 23. Hann tók með sér þá sem vóru í Galíleu og í Arbattis, ásamt konum þeirra og børnum, og øllu sem þeir áttu, og flutti til Júdeu með miklum føgnuði. 24. En Júdas Makkabeus og Jónatan bróðir hans fóru yfirum Jórdan, og ferðuðust þrjár dagleiðir í óbygðum; 25. mættu þeir Nabateum, er tóku þeim vel, og søgðu þeim frá øllu, sem drifið hafði á dagana fyrir bræðrum þeirra í Galaaditis, 26. og að margir af þeim væru herteknir (og fluttir) til Bossora og Bosra, A-

lema, Kasfón, Makeð og Karnaim; allar vóru þessar borgir stórar og víggyrdtar, 27. og að líka væru herteknir menn í hinum ødrum borgum í Galaaditis, og að þeir (heidíngjarnir) væru reidubúnir til að ráðast á víggyrðinguna að morgni, og taka vígið, og afmá þá alla á einum degi. 28. Þá brá Júdas við og lið hans, og fóru til baka óbygdirnar til Bosra, tók hann borgina, og drap allt karlkyns með bitru sverði, tók allt fé þeirra að herfángi, og brendi hana (borgina) í eldi. 29. Þaðan fór hann um nóttina, og héldt áfram að víginu. 30. En þegar morgnaði litu þeir upp, og sjá! þar var margt fólk, óteljandi; þeir báru stiga, og stríðsvélar til að ná víginu, og réðust á þá (sem í því vóru). 31. Júdas sá, að stríðið var byrjað, og ópið í borginni tók til himins af lúðrunum og óhljóðunum, 32. þá sagði hann við hermenn sína: berjist í dag fyrir bræður yðar. 33. Hann fór með þrjá flokka að baki þeim, bléſu þeir í lúðra, og hrópuðu biðjandi. 34. Tímóteusar lið varð vart við, að Makkabeus var kominn, flýðu þeir þá fyrir honum, en hann lék þá hardt, og féllu af þeim á þessum degi við átta þúsund manns. 35. Þaðan fór hann til Massa, herjaði á hana, náði henni og drap allt kallkyns í henni, féfletti hana og brendi í eldi. 36. Síðan fór hann, tók Kaffón, Makeð, Bosor, og hinar borgirnar í Galaaditis.

37. En eptir þessa atburði safnaði Tímóteus ødrum her, og setti herbúðir gégnt Rafón, hinumeigin við ána. 38. Þá sendi Júdas menn, til að skygnast um herbúðirnar; þeir kunngjørðu honum, og søgðu: allir heidíngjar umhverfis oss hafa safnast að þeim, er það ógrynni hers; 39. og þeir hafa leigt Arabiska sér til hjálpar, og sett herbúðir hinumeigin við ána, reidubúnir til að fara móti þér til stríðs; fór Júdas móti þeim. 40. Tímóteus sagði við liðsforíngja sína: þegar Júdas og lið hans kémur að ánni, verði hann þá fyrri til að fara yfirum til vor, þá munum vér ekki fá staðist fyrir honum, heldur mun hann bera oss ofurliði; 41. en verði hann ragur og setji herbúðir hinumeigin við fljótið, þá skulum vér fara yfirum til hans, og mun oss þá veita betur. 42. En þegar Júdas kom að vatnsfallinu, setti hann hina skriftlærðu af fólkinu við ána, bauð þeim, og sagði: líðið eingum manni að tjalda, því þeir verða allir að koma til stríðsins. 43. Fór hann svo fyrstur yfirum til þeirra, og allt fólkið á eptir honum, og allir heidíngjarnir tvístruðust fyrir honum, fleygðu vopnum og flýðu til hofsins í Karnaim. 44. Hann (Júdas) tók borgina, og brendu þeir hofið í eldi með øllu því sem í því var, Karnaim varð eyðiløgð, og síðan gátu þeir ekki varist fyrir Júdasi. 45. Síðan safnaði Júdas øllum Ísraelsmønnum, sem vóru í Galaaditis, smáum og stórum, konum þeirra, børnum og farángri, mesta mannfjølda, til að fara til Júdeulands. 46. Þeir komu til Efóron, það var stór borg og vel víggyrdt, lá hún rétt fyrir veginum inní landið og var ómøgulegt að víkja frá henni til hægri handar, eður vinstri, heldur varð að fara miðt í gégnum hana. 47. Bæarmenn lokuðu þá úti, og hlóðu steinum uppí hliðin. 48. Þá sendi Júdas menn til þeirra með friðar boðskap, og lét skila (til þeirra): vér viljum fara gégnum land þitt til að komast heim í vort land, og einginn skal gjøra yður íllt, vér viljum að eins fara fótgángandi; en hinir vildu ekki lúka upp fyrir honum. 49. Þá skipaði Júdas að úthrópa um herinn að sérhvørr skyldi setja herbúðir þar sem hann stæði. 50. Hermennirnir settu þá herbúðir, og herjuðu á borgina allann þenna dag, og alla nóttina, og varð hún unnin. 51. Og hann (Júdas) afmáði allt karlkyns með bitru sverði,

reif borgina nidur í grunn, tók herfángid úr henni, og gékk í gégnum hana ofaná þeim myrdtu. 52. Sídan fóru þeir yfir Jórdan, og yfirá stóru sléttuna gégnt Betsan. 53. Og Júdas var alltaf ad safna þeim sem aptur úr dróguſt, og upphvetja fólkid á allri leidinni, þángad til þeir komu í Júdeu land. 54. Þá fóru þeir uppá Síons fjall med føgnudi og gledi, og færdu brennifórnir, því einginn af þeim hafdi fallid, þángad til þeir komust heim i fridi.

55. En um þær mundir sem Júdas og Jónatan vóru í Galaad, og Símon bródir hans í Galíleu gégnt Tólómeu, 56. þá frétti Jósep Sakaríasson og Asarías, lidsforíngjarnir, hreystiverk þeirra, og orusturnar sem þeir høfdu unnid. 57. Hann (Jósep) sagdi þá: vér skulum líka afla oss frægdar, og fara ad berjast vid heidíngjana umhverfis oss. 58. Þetta bodudu þeir hermønnunum sem hjá þeim vóru, og fóru sídan móti Jamniu (Jabne). 59. Þá fór Gorgías útúr borginni, og menn hans, móti þeim til strìds. 60. Jósep og Asarías urdu reknir á flótta, og vóru eltir alltad Júdeu takmørkum, og féllu á þeim degi af Ísraels lýd hérum tvø þúsund manns; 61. mikill flótti brast í lid Ísraelsmanna, af því þeir hlýddu ekki Júdasi og brædrum hans, og þóttust vera menn fyrir sér. 62. En þeir áttu ekki ætt sína ad rekja til þeirra manna hvørjum unnt var ad frelsa Ísrael med hreysti sinni.

63. En hetjan Júdas og brædur hans, vóru í miklum metum hjá øllum Ísraelsmønnum, og øllum heidíngjum, hvar sem þeirra var getid; 64. og menn søfnudust ad þeim til ad óska þeim lukku. 65. Júdas og brædur hans fóru (enn) í leidángur, og børdust vid Esaú nidja í landinu gégnt sudri; vann hann Hebron og dætur hennar (stadina kríngum hana), reif nidur víggyrdíng hennar, og brendi turna hennar hrínginn í kríng. 66. Þadan tók hann sig upp, til ad fara í heidíngja lønd, og fór í gégnum Samaríu. 67. Á þeim degi féllu prestarnir í strídi, er þeir vildu sýna hreysti sína, og løgdu út í bardaga í rádleysu. 68. Sídan snéri Júdas ferd sinni til Asdod, í heidíngja land, reif nidur ølturu þeirra, brendi í eldi þeirra útskornu godamindir, rænti herfángi úr borgunum, og snéri aptur til Júdeu lands.

## 6. Kapítuli.

Daudi Antíokuss gøfga. Bardagi Gydínga vid Antíokus ættgøfga (Evpator).

1. Á medan Antíokus konúngur var á ferd um uppløndin, frétti hann ad í Persíu væri Elymais, ordløgd borg fyrir audæfi, silfur og gull, 2. og ad hofid þar væri hardla audugt og væru þar gylltar hlífar, og brynjur og vopn sem Alexander Filippusson Makedóna konúngur, hefdi skilid þar eptir, hann, sem fyrst var konúngur medal Grikkja. 3. Hann (Antiokus) kom og leitadist vid ad taka borgina, og ræna hana, en gat þad ekki, því þessi áſetníngur var ordinn kunnur bæarmønnum. 4. Risu þeir móti honum til strìds, en hann flúdi, og fór þadan med mikilli hrygd, og ætladi til Babylonar. 5. Þá kom einhvør sendimadur til hans í Persíu, og sagdi honum frá, ad herinn, sem farid hefdi til Júdeulands hefdi verid rekinn á flótta; 6. og ad Lysías hefdi í øndverdu farid med styrkann her, en ordid ad flýa fyrir þeim, og ad þeir hefdu eflst ad vopnum, lidi og miklu herfángi, sem þeir hefdu tekid frá hernum, sem þeir høfdu britjad nidur, 7. og rifid nidur vidurstygdina sem hann hafdi reist á alltarinu í Jerúsalem, og hladid háa múrveggi í kríngum helgidóminn, einsog ádur fyrri, og (kríngum) Betsuru, borg hans. 8. Svo brá vid þegar konúngur heyrdi þessa søgu, ad hann vard hissa, og tók sér þetta mjøg nærri; hann lagdist í rúmid, og vard veikur af

sorg, af því honum hafdi ekki geingid eins vel og hann hugsadi. 9. Þar var hann í marga daga, því hin mikla sorg hans fór jafnan vaxandi, og hann héldt hann mundi deya. 10. Þá kalladi hann á alla vini sína og sagdi vid þá: svefninn flýr augu mín, og eg er hugsjúkur af áhyggju; 11. og eg sagdi vid sjálfann mig: í hvílíka neyd og holskéflu er eg nú ekki kominn? samt var eg (þóktist vera) gódur og elskadur medan eg ríkti. 12. Enn nú minnist eg þeirra illgjørda sem eg framdi í Jerúsalem, þegar eg tók allann gull- og silfur-búnadinn sem þar var, og sendi til ad afmá þá sem bjuggu í Júdeu, ad orsakalausu. 13. Eg kannast nú vid, ad søkum þessa, dynur þessi ólukka yfir mig, og sjá! eg dey nú í mikilli sorg í framandi landi. 14. Sídan kalladi hann á Filippus, einn af vinum sínum, og setti hann yfir allt sitt ríki; 15. og fékk honum kórónuna, og yfirhøfn sína og fíngurgull, ad hann skyldi ala upp son hans Antiokus, og fóstra hann, þartil hann gjæti tekid konúngdóm. 16. Og Antiokus konúngur dó þarna á 149da ári (ríkisstjórnar Grikkja).

17. Þegar Lysías frétti, ad kóngurinn væri daudur, setti hann Antiokus son hans, sem hann hafdi ádur fóstrad, til konúngs í hans stad, og nefndi hann Evpator (hinn ættgøfga). 18. Þeir sem í víginu vóru, vóru alltaf ad kreppa ad Israelsmønnum hrínginn í kríngum helgidóminn, og leitudust vid med øllu móti ad gjøra þeim íllt, en veittu heidíngjum styrk. 19. Júdas ásetti sér ad afmá þá, og stefndi øllum lýdnum saman til ad setjast um þá. 20. Þeir søfnudust ásamt, og settust um þá á 150ta ári, og bjuggu til skotvyrki og strídsvélar móti þeim. 21. Nokkrir af þeim komust út úr umsátrinu, og sumir gudlausir Israelsmenn gjørdust þeim áhángandi, 22. fóru þeir á konúngsfund, og søgdu: hvørsu leingi ætlar þú ad fresta úrskurdinum, og nær hefna brædra vorra? 23. Oss gédjadist vel ad þjóna fødur þínum, ad fara eptir því sem hann sagdi, og fylgja bodum hans. 24. Nú hafa synir þjódar vorrar setst ad í víginu, og þessvegna hatast þeir vid oss; já, allir af oss sem fundnir urdu eru drepnir, og eignum vorum var rænt; 25. og ekki hafa þeir framid ofbeldi á oss einúngis, heldur einnig á øllum í landi þeirra. 26. Og sjá! í dag hafa þeir setst um vígid í Jerúsalem til ad ná því, og þeir hafa víggyrdt helgidóminn, og Betsúru; 27. og takir þú ekki skjótt ofani bakid á þeim, munu þeir adhafast meira enn þetta, og munt þú þá ekki fá vid þá rádid. 28. Þegar Konúngur heyrdi þetta, reiddist hann, og safnadi øllum vinum sínum og hershøfdíngjum, og yfirmønnum riddaralidsins; 29. og úr ødrum Kóngsríkjum, og frá eyjunum í hafinu kom leiguher til hans. 30. Herlid hans var ad tølu: hundrad þúsundir fótgaungulids, og tuttugu þúsundir riddaralids, og þrjátíu og tveir hervanir fílar. 31. Þeir fóru gégnum Idúmeu, og settu herbúdir vid Betsúru, herjudu á hana í marga daga, og bjuggu til strídsvélar, en hinir fóru út, og brendu þær í eldi, og børdust kallmannlega.

32. Þá tók Júdas sig upp frá víginu, og setti herbúdir vid Betsakaría gégnt herbúdum Kóngsins. 33. En Kóngurinn tók sig snemma upp um morguninn, og fór med herinn í skyndi á leid til Betsakaría, og lidid bjóst til bardaga, og blés í lúdra. 34. Þeir sýndu fílunum víndrúgna- og mórberja-løg, til ad koma þeim fram í strídid. 35. Þeir skiptu dýrunum (fílunum) á fylkíngarnar, og létu hvørjum fíli fylgja þúsund menn í hrínga-brynjum, og med koparhjálma á høfdum, og fimm hundrud útvaldra riddara vóru skipud hvørju dýri. 36. Þeir høgudu sér eptir kríngumstædunum, hvar sem dýrid var, þar vóru þeir, og hvørt sem

það fór, þá fylgdust þeir með, og yfirgáfu það ekki. 37. Og sterkir tréturnar vóru á þeim tjaldaðir á hvörju dýri, gyrðtir á þau með tilbúníngi; í hvörjum turni vóru þrjátíu og tveir hermenn, og blámaðurinn sem stýrði fílnum. 38. Það sem afgángs var af riddaralidinu settu þeir hér og hvar beggjameigin við herinn, skyldu þeir (riddararnir) eggja liðið, og hlífa fylkíngunum. 39. En þegar sólin skein á hina gulinu og eirslegnu skyldi, þá leyptruðu fjöllin af þeim, og skinu einsog logandi blis. 40. Nokkur hluti af liði Kóngsins breiddi sig upp um há fjöll, en nokkur hluti um láglendið, komust þeir áfram með gætni og í góðri skipun. 41. Og allir skulfu sem heyrðu hljóðin úr þvílíkum fjölda, og af ferðalagi þessa grúa, og vopnabrakinu, því herinn var næsta mikill og voldugur. 42. Júdas nálgaðist, og her hans, til atlögu, og féllu sex hundruð menn af liði Konúngs. 43. En Eleasar Savaran sá eitt af dýrunum, að það var búið konúnglegri brynju, og bar af öllum dýrunum, og sýndist honum að Konúngurinn væri á því. 44. Hann gaf sig þá út, til að frelsa þjóð sína, og afla sér ævarandi frægðar. 45. Óð hann að því (dýrinu) djarflega útí miðja fylkínguna, og drap á hægri og vinstri hlið; hrukku þeir fyrir honum til beggja handa. 46. Hann smaug undir fílinn, og settist undir hann, lagði hann, en hann hné til jarðar ofaná hann, og dó hann þar. 47. Þegar þeir sáu liðsafla Kóngsins, og aðfarir hersins, viku þeir frá þeim. 48. En Kóngsins hermenn héldu áfram, og ætluðu að mæta þeim í Jerúsalem, og Kóngurinn fór með herinn til Júdeu og til Síons fjalls. 49. Hann samdi frið við innbúana í Betsúru, og fóru þeir út úr borginni, því þeir höfðu þar ekki viðurværi, til að géta verið í henni, því þá var hvíldarár landsins. 50. En Kóngurinn tók Betsúru, og setti þar setulið til að gæta hennar. 51. Hann herjaði á helgidóminn í marga daga, reisti þar skotvyrki og stríðsvélar, eldskeiti, grjótskála, og pílu skotvyrki til að skjóta af, og slaungur. 52. Hinir gjörðu sér líka hervyrki á móti þeirra hervyrkjum, og börðust í marga daga. 53. En þeir höfðu ekki matvæli (innanborgar) í ílátunum, af því að sjöunda árið var, og þeir, sem sloppið höfðu frá heiðíngjunum og komist í Júdeu, höfðu lokið því sem eptir var af forðanum. 54. Og fáeinir menn urðu eptir í helgidóminum, því húngrið bar þá ofurliði, og tvístruðust þeir hvör heim til sín.

55. Nú frétti Lysías, að Filippus, hvörn Antíokus Konúngur í lifanda lífi hafði kjörið til að fóstra son sinn Antíokus, þángað til hann tæki við Kóngsstjórninni, 56. væri kominn aptur frá Persíu og Medíu, og lið Kóngsins sem með honum hafði farið, og að hann (Filippus) vildi ná stjórnarráðum. 57. Þá flýtti hann sér burt, og sagði við Kónginn og liðsforíngjana, og (heldri) mennina: vér vanmegnumst daglega, höfum lítið til fæðu, og staðurinn sem vér sitjum um, er víggyrðtur, og ríkisins nauðsynjar hvíla á oss. 58. Látum oss því bjóða þessum mönnum handsöl, og gjörum frið við þá, og alla þeirra þjóð; 59. og gjörum þeim kost á, að fara eptir lagareglum þeirra, einsog áður, því sökum setnínga sinna, er vér vildum ónýta, urðu þeir reiðir og aðhöfðust allt þetta. 60. Þessi ræða géðjaðist Konúngi vel og höfðíngjunum, sendi hann á þeirra fund til að bjóða frið, og tóku þeir því vel. 61. Kóngurinn og höfðíngjarnir unnu þeim eiða, síðan fóru þeir út úr víginu. 62. Kóngurinn fór upp á Síonsfjall, og sá staðar vígið; þá rauf hann eiðinn sem hann hafði unnið, og skipaði að rífa niður múrinn hríngin í kríng. 63. Síðan fór hann þaðan í skyndi, og snéri til Antíokíu, og hitti svo á, að Fil-

ippus var setstur ad vøldum í borginni, bardist hann vid hann, og tók borgina med ofbeldi.

## 7. Kapítuli.

Demetríus kémst til ríkis í Sýrlandi. Vidureign Gydínga vid Bakkídes og Nikanor.

1. Árid 151 kom Demetríus Selevkusarson frá Rómaborg, steig á land vid fáa menn, fór til borgar nokkurrar vid hafid, og settist þar ad ríki. 2. En þad skédi, þegar hann var kominn í høfudstadinn, í ríki forfedra sinna, þá tók herinn Antíokus og Lysías, og ætludu ad færa honum þá. 3. Þegar hann vard þessa vís, sagdi hann: látid mig ekki sjá auglit þeirra. 4. Sídan myrdti herinn þá, en Demetríus settist ad ríki. 5. Til hans fóru allir óhlutvandir og gudlausir Ísraelsmenn; var Alkimus fyrir þeim, hann vildi verda ædsti prestur. 6. Þeir kløgudu fólkid fyrir Kónginum, og søgdu: Júdas og brædur hans hafa afmád vini þína, og tvístrad oss úr landi voru. 7. Send þú nú einhvørn mann, sem þú trúir, ad hann fari, og sjái alla þá eydileggíngu, sem hann hefir unnid oss, og landi Konúngsins, og straffi þá og alla þeirra lidveitslu menn. 8. Nefndi Konúngur til þess einn af gjædíngum sínum, Bakkídes, landshøfdingja hinumeigin vid fljótid, hann var mikils metinn um ríkid, og trúnadarmadur Kóngsins. 9. Þennan sendi hann, og nídínginn Alkimus, og skipadi honum (ædsta) prestsembættid, og baud honum ad hefna á Ísraelsmønnum; 10. fóru þeir af stad, og komu vid mikinn her til Júdeu lands; sendi hann sendiboda til Júdasar og brædra hans, med fridar bodskap; en svik bjuggu undir. 11. En þeir gáfu ekki gaum ordum þeirra, því þeir sáu ad þeir vóru komnir med mikinn her. 12. Þá safnadist fjøldi af skriftlærdum til Alkimusar og Bakkídesar, til ad leita réttar. 13. Asídear urdu fyrstir til þess af Ísraelsmønnum, og bádu þá um frid, 14. því þeir søgdu: prestur af Arons ætt er kominn med hernum, og mun hann ekki vinna oss mein. 15. Hann taladi fridlega vid þá, sór þeim og sagdi: vér skulum ekki leitast vid ad gjøra ydur íllt, né brædrum ydar. 16. Þá trúdu þeir honum; en hann tók sextíu menn af þeim og drap þá á einum degi, eins og hann (Asaf Sálm: 79, 3) hefir skrifad: 17. þeir hafa úthellt holdi (lífi) og blódi þinna gudhræddu hrínginn í kríngum Jerúsalem, og þeir áttu eingann ad, sem jardadi þá. 18. Og øllum lýdnum stód ótti og skélfíng af þeim, því þeir søgdu: sannsøgli og réttvísi býr ekki med þeim, þared þeir rufu samnínginn og eidinn sem þeir sóru. 19. Bakkídes tók sig upp frá Jerúsalem, og setti herbúdir vid Beset; hann sendi menn, og lét handtaka marga af þeim, sem strokid høfdu frá honum, og nokkra af fólkinu, og slátradi þeim ofaní stóra brunninn. 20. Sídan skipadi hann Alkimusi landid, og skildi eptir hjá honum her til lidveitslu vid hann. 21. Og Bakkídes fór aptur til konúngsins, en Alkimus bardist fyrir prests-embættid. 22. Og allir søfnudust til hans, sem vøktu óeyrdir medal þjódar sinnar, brutu þeir Júdeu land undir sig, og unnu Ísrael stórtjón. 23. Þegar Júdas sá alla þá ólukku, sem Alkimus og menn hans høfdu gjørt Ísraelsmønnum, meir enn heidíngjarnir, 24. þá fór hann hrínginn í kríng, innan allra Júdeu takmarka, og hefndi á strokumønnunum, og vóru þeir hindradir frá ad fara yfir landid.

25. En þegar Alkimus sá ad Júdas efldist og menn hans, og vissi, ad hann gat ekki stadist fyrir þeim, þá hvarf hann aptur til Kóngsins, og klagadi þá um illvyrki. 26. Þá sendi Kóngurinn Nikanor, einn af sínum frægu høfdíngjum, sem hatadi Ísraelsmenn, og var óvinur þeirra, og baud honum ad afmá

þjódina. 27. Nikanor fór til Jerúsalems borgar med miklu lidi, sendi til Júdasar og brædra hans, med svikum, en lét skila svolátandi fridarbodum: 28. ekki skal stríd vera milli mín og ydar, eg ætla ad koma med fáa menn, til ad sjá ydur med fridi. 29. Kom hann til Júdasar, og heilsudust þeir fridsamlega, en óvinirnir voru reidubúnir til ad grípa Júdas med valdi. 30. Júdas komst ad þessari rádagjørd, ad hann var kominn til hans med vélahug, stód honum því stuggur af honum, og vildi ekki sjá hann framar. 31. Þegar Nikanor vissi, ad rád hans var ordid opinbert, fór hann, og ætladi ad mæta Júdasi í orustu vid Kafarsalama. 32. Þar féllu af Nikanor eitthvad fim þúsund manns, en hinir flýdu til Davíds borgar.

33. Eptir þessa vidburdi fór Nikanor uppá Síonsfjall, þá fóru sumir af prestunum útúr helgidóminum, og nokkrir af øldúngum lýdsins, til ad kvedja hann fridsamlega, og sýna honum brennifórnina, sem offrud var fyrir Kónginn. 34. En hann smánadi þá og spottadi, og meiddi (í ordum) og taladi drembilega. 35. Hann sór í brædi, og sagdi: verdi ekki Júdas og her hans seldur mér í hendur strax, þá skal þad ské, audnist mér ad koma aptur heilum, ad eg skal brenna þetta hús (musterid), sídan fór hann í burt stór reidur. 36. Prestarnir fóru inn, numu stadar fyrir framan altarid í musterinu, grétu, og mæltu: 37. Þú, Drottinn! útvaldir þetta hús, ad nafn þitt skyldi verda ákallad í því, og ad þad skyldi vera bæna- og ákøllunar-hús fyrir þinn lýd. 38. Hefndu á þessum manni og lidi hans, og láttu þá falla fyrir sverdi; minnstu smánarorda þeirra, og géf þeim (hér) ekki samastad. 39. Þegar Nikanor var farinn úr Jerúsalem, setti hann herbúdir vid Betóron; þar mætti honum her úr Sýrlandi. 40. En Júdas setti herbúdir í Adasa vid þrjú þúsund manns; og Júdas badst fyrir, svo mælandi: 41. Þegar sendimenn Assýríu Kongúngs lastyrdtu (þig), þá útgékk Eingill þinn, Drottinn! og sló hundrad áttatíu og fim þúsundir af þeim, (Es. 37, 36). 42. Slá þú nú eins her þenna í dag, ad oss ásjáendum, og lát þú hinum ødrum skiljast, ad þeir hafi talad illa um helgidóm þinn, og dæm þú hann (Nikanor) eptir illsku hans. 43. Herlidunum sló saman í orustu á þrettánda degi mánadarins Adar; beid Nikanors her ósigur, og féll hann sjálfur fyrstur í strídinu; 44. En þegar lid hans sá, ad Nikanor var fallinn, fleygdu þeir vopnum og flýdu; 45. Eltu hinir þá heila dagleid frá Asada til Gasera, og blésu í merki-lúdra bak vid þá. 46. Þá komu menn út úr øllum þorpum umhverfis í Júdeu, og gjørdu út af vid þá, en geingu í lid med þeim (Júdasi); féllu hinir allir fyrir sverdi, svo ekki komst einn einasti þeirra af. 47. Þar tóku þeir ránsfé ad herfángi, hjuggu høfudid af Nikanor og hægri høndina, sem hann hafdi útrétt drembilega, fluttu med sér, og heingdu upp fyrir utan Jerúsalem. 48. Þá var lýdurinn yfirburda gladur, og héldu þeir þennann dag hátídlegann eins og mikinn gledidag. 49. Og ákvádu, ad árlega skyldi halda helgann þennann dag, hinn þrettánda í (mánudinum) Adar. 50. Var nú kyrrt í Júdeu um lítinn tíma.

## 8. Kapítuli.

Sáttmáli Gydínga vid Rómverja.

1. Júdas hafdi heyrt þad sagt um Rómverja, ad þeir væru voldugir, og vel metnir medal allra sinna bandamanna, og ad þeir gjørdu støduga vináttu vid alla sem leitudu ásjár hjá þeim, og hefdu mikinn lidsafla. 2. Honum hafdi verid sagt frá orustum þeirra,

og afreksverkum sem þeir unnu hjá Galatíu-mønnum, ad þeir hefdu borid hærri hluta í vidskiptum vid þá, og gjørt þá skattskylda. 3. Líka (hafdi hann frétt) þad sem þeir hefdu adhafst í Spaníulandi, til ad ná málmunum, silfrinu og gullinu, sem þar var, 4. ad þeir hefdu náð øllu því héradi med ráddeild sinni og þolgjædi, þó ad þad hérad væri yfrid lángt frá þeim, og (ad þeir hefdu barist vid) þá Konúnga, sem farid hefdu móti þeim, ytst úr landinu, þángad til þeir hefdu gjørt útaf vid þá, og unnið þeim stórtjón, en hinir sem eptir urdu, greiddu þeim skatt á ári hvørju; 5. og Filippus og Perses Kittea Konúng, og þá sem hefdu sett sig móti þeim, hefdu þeir kúgad med herskildi, og borid ofurlidi. 6. En Antiókusi enum mikla, Asíu Konúngi, sem hafdi fært þeim stríd á hendur, og haft hundrad og tuttugu fíla, og hesta og vagna, og afar mikinn her, en vard sigradur af þeim, 7. høfdu þeir náð lifandi, og skuldbundid bædi hann og Kóngana eptir hann til ad greida þeim mikinn skatt, selja gisla, og skipta med þeim løndum, 8. bædi Indlandi, Medíu og Lydiu, og (nokkrum) af þeirra bestu løndum; tóku þeir þau og gáfu Evmenesi Konúngi; 9. og ad Grikkir hefdu rád gjørt ad fara og afmá þá, 10. en þeir hefdu komist ad ráda-gjørdinni og sendt á móti þeim einn hershøfd-íngja, hefdu þeir barist vid þá, og margir af þeim fallid særdir, en þeir (Rómverjar) hefdu hertekid konur þeirra og børn, rænt þá, og tekid undir sig land þeirra, rifid nidur víg-gyrdíngar þeirra, og hneppt þá í þrældóm allt til þessa dags; 11. og hin ríkin og eyarnar, og alla þá, sem nokkurntíma hefdu sett sig upp á móti þeim, hefdu þeir illa leikid og gjørt ánauduga; 12. en vid vini sína og skjólstæd-ínga héldu þeir støduga vináttu, og hefdu vald yfir Kóngaríkjum nær og fjær, og ad allir, sem um þá heyrdu getid, hefdu beyg af þeim; 13. og ad hvørjir sem þeir vildu hjálpa og láta ríkja, þeir sætu ad ríkjum, en settu af þá sem þeir vildu, og hefdu mikinn uppgáng; 14. og allt fyrir þetta hefdi einginn þeirra tekid Kóngstign, né klædst skarlati til ad leita sér ágjætis med því; 15. heldur hefdu þeir skipad (øldúnga)-ráð, og á hvørjum degi væru þrjú hundrud og tuttugu rádherrar allt af ad rádgast um almenníngs hag, til ad koma gódri skipun á; 16. og ad þeir trydu einum manni fyrir yfirstjórninni yfir þeim á hvørju ári, og umrádum yfir øllu landi þeirra, og allir hlýddu honum einum, og ekki væri øfund né matníngur medal þeirra. 17. Þar fyrir kjøri Júdas Evpolemus Jóhannesar son, Akkos-sonar, og Jason Eleasars son, og sendi þá til Rómaborgar til ad semja um vináttu og fé-lagsskap; 18. og ad létta af þeim okinu, því þeir sáu, ad Grikkja ríki ætludu ad hneppa Ísraelsmenn í þrældóm. 19. Þeir fóru nú til Rómaborgar, var vegurinn (þángad) harla lángur; komu þeir inní rádstofuna, tóku til orda, og mæltu: 20. Júdas Makkabeus og brædur hans og fjøldi Gydínga sendu okkur til ydar til ad semja vid ydur um tryggann félagsskap og frid, ad vér mættum verda skrifadir (gjørdir) bandamenn ydar og vinir. 21. Þessi ræda gédjadist þeim vel. 22. Og þetta er afskrift af bréfinu, sem skrifad var til baka á kopar spjøld, og sendt til Jerúsalem til ad vera þar hjá þeim til minníngar um fridinn og félagsskapinn: 23. „Vel vegni Róm-verjum og Gydíngalýd á sjó og landi til eilífd-ar, og sverd og óvinir séu lángt frá þeim; 24. en efad stríd kémur fyrri upp í Rómaborg, eda vid nokkura af sambandsmønnum þeirra (Rómverja) í øllu þeirra ríki, 25. þá skal Gydínga þjód hjálpa (þeim), eptir því sem kríngumstædur útheimta, af øllu hjarta; 26. og þeim sem fara med ó-

frid skulu þeir hvørki géfa né hjálpa um vistir, vopn, skotsilfur eda skip, eptir því sem Rómverjum þókknast, og þeir skulu halda vørd eptir tiltølu, kauplaust. 27. Sømuleidis, ef ad Gydínga þjód ratar fyrri í stríd, þá skulu Rómverjar hjálpa þeim af hjarta, eptir því sem kríngumstædur útheimta, 28. og þeim sem hjálpa til ad berjast (vid Gydínga) skulu ekki verda géfnar vistir, vopn, skotsilfur né skip, eins og ályktad er í Rómaborg, og þeir skulu halda vørd eptir tiltølu, svikalaust. 29. Med þessum skilmálum hafa Rómverjar samid (félagsskap) vid Gydíngalýd. 30. En ef ad adrir hvørjir kunna seinna ad vilja bæta vid (samníngínn) eda taka frá, þá meiga þeir gjøra þad, eptir því sem þeir kjósa, og hvad sem þeir kunna ad bæta vid, edur taka frá, skal gylda. 31. En hvad vidvíkur þeim yfirgángi, sem Demetríus Konúngur sýnir þeim, þá høfum vér skrifad honum á þessa leid: því hefir þú lagt þúngt ok á vini vora og bandamenn, Gydíngana? 32. Efad þeir því bera sig optar upp undan þér, þá munum vér reka réttar þeirra, og herja á þig á sjó og landi".

## 9. Kapítuli.

*Bakkides fer ad nýu herfør mót Gydíngum, Júdas Makkabeus sellur, og Jóhannes bródir hans, brædur hans hefna hans; Alkimus deyr; Bakkides fer enn herfør, og semur loks frid vid Jónatan.*

1. Þegar Demetríus frétti, ad Nikanor væri fallinn í strídinu og lid hans, þá sendi hann aptur í annad sinn Bakkides og Alkimus til Júdeulands, og hægri fylkíngar arm sinn med þeim. 2. Þeir fóru leidina til Galgala, og settu herbúdir hjá Mesalot í Arbelu, tóku hana (borgina Mesalot) og myrdtu marga menn. 3. Á fyrsta mánudinum árid 152 settust þeir um Jerúsalem. 4. Þadan tóku þeir sig upp og fóru til Bereu med tuttugu þúsund (fótgaungu)-lids, og tvø þúsund riddara. 5. En Júdas hafdi sett herbúdir í Eleasa, og þrjú þúsund einvala lids med honum. 6. Þegar þeir sáu lidsfjøldann, ad þeir (óvinirnir) vóru margir, þá urdu þeir lafhræddir, og runnu margir frá herbúdunum, svo ad ekki urdu fleiri eptir af þeim enn átta hundrud manns. 7. Þegar Júdas sá, ad lid hans var runnid burt, en strídid þreingdi ad honum, þá vard hann ángurvær í hjarta, því hann hafdi ekki tíma til ad safna þeim saman aptur. 8. Hann fór út, og sagdi vid þá sem eptir voru: tøkum oss upp, og førum móti óvinum vorum, ef vér kunnum ad géta sigrad þá. 9. En þeir! øptrudu honum, og søgdu: vér gétum þad einganvegin; látum oss heldur bjarga lífi voru í þetta skipti, og veita eptirfør brædrum vorum, munum vér sídan fá barist vid þá, en núna erum vér lidfáir. 10. Júdas mælti: verdi mér þad ekki, ad fara svo ad rádi mínu, ad flýa fyrir þeim; sé vor tími (daudadagur) kominn, þá látum oss falla med hreysti fyrir brædur vora, svo ordstýr vor verdi ekki fyrir ámæli. 11. (Óvina)-lidid tók sig nú upp frá herbúdunum, og fylkti sér, til atløgu vid þá, riddaralidinu var skipt í tvo flokka, slaungumennirnir og bogmennirnir fóru á undan hernum, og allir þeir hraustustu vóru í broddi fylkíngar. 12. En Bakkides var í hægri fylkíngararminum, fylkíngin nálægdist hvør adra, og þeir hljódudu (blésu) í lúdrana. 13. Júdasarmenn blésu líka í lúdra, svo jørdin skalf af herópinu, og strídid varadi frá morgni til kvølds. 14. Sá Júdas, ad Bakkides var í hægri fylkíngararminum, og hinir vøskustu af hernum, og allir þeir sem hugadir vóru søfnudust ad honum. 15. Hrøkk hægri fylkíngararmurinn fyrir þeim, og ráku þeir flóttann allt ad Asdodsfjalli. 16. En þegar þeir, sem vóru í vinstra fylkíngararminum sáu, ad hægri fylk-

íngararmurinn hrøkk undan, þá løgdu þeir eptir þeim Júdasi og komu á bak vid þá; 17. harðnadi nú bardaginn, og féllu margir særdir af hvorum tveggi. 18. Þar féll Júdas, en hinir adrir flýdu. 19. En Jónatan og Símon tóku Júdas bródur sinn og jørdudu hann í grøf fedra hans í Módín. 20. Og allir Ísraelsmenn grétu hann og hørmudu sárann, syrgdu í marga daga og søgdu: 21. Hvad kom til ad kappinn féll, sem frelsadi Ísrael? 22. En um hin ønnur størf Júdasar, og bardaga og afreksverk sem hann vann, og ágjæti hans, er ekki skrifad, því þau vóru hardla mørg.

23. En svo fór eptir ad Júdas var dáinn, ad órádvandir menn komu fram í øllu Ísraelslandi, og allir ójafnadarmenn risu upp. 24. Um sømu mundir var mikid hallæri, svo landid brást einsog þeir. 25. Þá kjøri Bakkídes gudlausa menn, og gjørdi þá ad yfirmønnum í landinu. 26. Þeir sóktu eptir, og leitudu ad áhángendum Júdasar, og færdu Bakkídesi þá, en hann hefndist á þeim og smánadi þá. 27. Þá var mikil neyd medal Ísraelsmanna, og hafdi ekki þvílík verid frá þeim degi ad spámanna vard vant medal þeirra.

28. Nú søfnudust allir vinir Júdasar saman og søgdu vid Jónatan: 29. Sídan Júdas bródir þinn andadist, er einginn hans líki til ad fara móti óvinunum, og Bakkídesi og þeim sem hatast vid þjód vora; 30. þessvegna høfum vér kjørid þig í dag, til ad vera høfdíngja vorn og foringja í hans stad, og heya stríd fyrir oss. 31. Á þessum sama tíma tók Jónatan vid stjórninni, og gékk í stad Júdasar bródur síns. 32. Þessa vard Bakkídes vís, og leitadist vid ad drepa hann. 33. Jónatan komst ad því, og Símon bródir hans, og allir sem med honum vóru; flúdu þeir þá í eydimørkina Tekóu og settu herbúdir vid tjørnina Assar. 34. Þetta frétti Bakkídes á hvíldardegi, kom hann þá, og lid hans allt hinumegin ad Jórdan. 35. Jónatan hafdi sendt bródur sinn, sem lidsforíngja, og bad Navatea vini sína, ad þeir mættu láta vera hjá þeim farángur sinn, sem mikill var. 36. En Jambri synir fóru út úr (stadnum) Medaba, handtóku Jóhannes, og allt sem hann hafdi medferdis, og fluttu á burt. 37. Eptir þessa vidburdi frétti Jónatan og Símon bródir hans, ad Jambri synir héldu mikid brúdkaup, og færu med brúdurina frá Nadabat — en hún var dóttir eins af stór-høfdíngjunum í Kanaan — med mikilli vidhøfn. 38. Þá minntust þeir Jóhannesar bródur síns, fóru af stad og fólu síg í hlé vid fjallid. 39. Þeir litudust um, og sáu, og sjá! þar var mikill hávadi og vidbúnadur, því brúdguminn kom móti þeim, og vinir hans og brædur, med bumbum og hljódfærum og miklum útbúnadi. 40. Þá risu þeir Jónatan upp úr launsátrinu móti þeim, og drápu þá, féllu margir af sárum, en þeir sem afkomust, flúdu uppá fjallid; rændu þeir øllu gótsi þeirra. 41. Þannig breyttist brúdkaupid í sorg, og hljódfærarøddin í harmakvein. 42. Svona hefndu þeir blóds bródur síns, og hvurfu sídan til Jórdanar mýra. 43. Bakkídes hafdi nú frétt þad, og fór því á hvíldardegi ad Jórdanar bøkkum med miklu lidi. 44. Þá sagdi Jónatan vid menn sína: tøkum oss nú upp og berjumst fyrir líf vort, þvíad nú er ekki í dag einsog í gjær og fyrra dag. 45. Því sjá! óvinirnir eru bædi fyrir framan og ad baki oss, áin Jórdan á bádar hendur, og mýrar og skógar, og ekkért undanfæri. 46. Hrópid því nú til himins, ad þér mættud frelsadir verda úr høndum óvina ydvarra. 47. Sídan tókst orustan; Jónatan rétti út hønd sína og ætladi ad slá Bakkídes, en hann hørfadi undan honum apturábak. 48. Þá støkk

Jónatan og menn hans útí Jórdan og syndtu yfirum, en hinir fóru ekki yfirum Jórdan á móti þeim. 49. Á þeim degi féllu hérum þúsund menn af Bakkídesi. 50. En hann fór til Jerúsalem, og bygdi víggyrdtar borgir í Júdeu, hann víggyrdti Jeríkó, Emaus, og Betóron, Betel, Tamnat, Faraton og Tefón, med háfum gyrdíngum, hlidum á og slagbrøndum fyrir; 51. og setti setulid í þær (borgirnar) til ad ýfast vid Ísraelsmenn. 52. Hann víggyrdti líka borgina í Betsúru, og Gasaraborg med slotinu, og setti lid í þær og vista forda. 53. Hann tók syni lands-høfdíngjanna í gíslíng, og setti þá í vardhald í víginu í Jerúsalem.

54. Árid 153, á ødrum mánudi skipadi Alkimus ad rífa nidur gyrdínguna, (sem var) kríngum innri gángboga helgidómsins, hann reif nidur verk spámannanna, og byrjadi (sjálfur) ad rífa. 55. Á sama tíma vard Alkimus lostinn, svo athafnir hans hindrudust; hann vard mállaus og limafallssjúkur, og gat ekki uppfrá því talad ord né rádstafad húsi sínu. 56. Og Alkimus dó um þessar mundir med mikilli kvøl. 57. Þegar Bakkides vissi, ad Alkimus var daudur, fór hann aptur til kóngsins, og Júdeu land hafdi frid í tvø ár. 58. Þá rádgudust allir hinir órádvøndu hvør vid annan og søgdu: sjá, Jónatan og menn hans eru nú í kyrd, og grandalausir; nú skulum vér sækja Bakkides, svo hann géti nád þeim øllum á einni nóttu. 59. Sídan fóru þeir og rádgudust um þetta vid hann. 60. Hann lagdi af stad og ætladi ad koma med miklu lidi, sendi hann bréf á laun øllum sínum bandamønnum í Júdeu, og bad þá handtaka Jónatan og menn hans; en þeir gátu þad ekki, því rádagjørd þeirra var ordin hinum kunn. 61. En (þeir Jónatan) nádu eitthvad simmtíu mønnum úr landinu, sem verid høfdu frumkvødlar þessa íllrædis, og drápu þá. 62. Sídan fór Jónatan burt, og Símon, og þeir sem med honum vóru, til Betsøbu í eydimørkinni, og bygdi þad af henni sem rifid var, og umgyrdti hana. 63. Þegar Bakkides frétti þad, safnadi hann øllu lidi sínu, og gjørdi þeim ord í Júdeu; 64. kom hann og settist um Betsøbu, herjadi á hana í marga daga, og bjó til hervyrki. 65. Jónatan skildi Símon bródur sinn eptir í borginni, en fór sjálfur útí landid med flokk manna; 66. og drap Odarres og brædur hans og Faserons syni í tjaldi þeirra. 67. Sídan fór hann ad strída og fara herførum, en Símon og menn hans fóru útúr borginni og brendu hervyrkin. 68. Þeir børdust vid Bakkides, og beid hann tjón af þeim, þraungvudu þeir honum mjøg, svoad rádagjørd hans og før vard árángurslaus. 69. Reiddist hann þá ógurlega hinum órádvøndu mønnum sem høfdu hvatt hann til ad fara þángad, drap marga af þeim, og rédi af ad fara aptur heim í sitt land. 70. Jónatan vard þessa áskynja, og sendi øldúnga á fund hans tilad semja frid vid hann, og skyldi hann skila þeim aptur herfánginu; 71. Hann tók fridar kostunum og hlýddi bodi hans (Jónatans) og sór honum, ad hann skyldi ekki leitast vid ad gjøra honum íllt alla sína lífdaga; 72. skiladi honum herfánginu, sem hann hafdi ádur tekid í Gydíngalandi, fór sídan burt og heim í sitt land, og kom ekki optar í þeirra land. 73. Þá linnti ófridi medal Ísraelsmanna, og Jónatan bjó í Makmas, fór ad dæma fólkid (stjórna fólkinu) og afmádi hina gudlausu af Ísraels mønnum.

## 10. Kapítuli.

Alexander Balas sigrar Demetríus (Sóter), kvongast, heidrar Jónatan fyrir lidveitslu hans; Jónatan sigrar Appolloníus, hershøfdíngja Demetríusar (Níkators).

1. Svo bar vid árid 160, ad Alexander, sonur Antíokuss hins gøfga, fór (herfør) aust-

ur, og tók (borgina) Tólómeu; tóku þeir honum vel, og vard hann þar Konúngur. 2. Þegar Demetríus Konúngur heyrdi þad, safnadi hann stórmiklum her, og rédist móti honum til stríds. 3. Sendi Demetríus bréf til Jónatans, baud honum frid og mikla tign; 4. því hann sagdi (hugsadi): látum oss verda fyrri til ad semja frid vid hann, ádur enn hann bindur trygd vid Alexander móti oss. 5. Því hann mun muna (oss) allt hid illa, sem vér høfum unnid honum, brædrum hans og landsmønnum. 6. Hann gaf honum því leyfi til ad safna lidi, afla sér herbúnadar, skyldi hann (Jónatan) vera lidsbródir hans (Demetríusar), og baud hann ad skila honum gíslunum, sem voru í víginu. 7. Jónatan fór til Jerúsalem, og las bréfin í áheyrn alls lýdsins, og þeirra sem voru í víginu. 8. Urdu þeir (setulidid í víginu) lafhræddir, er þeir heyrdu, ad Konúngurinn hefdi géfid honum leyfi til ad safna lidi. 9. Og (vardmennirnir) í víginu skilndu Jónatan gíslunum, en hann gaf þá foreldrum þeirra. 10. Jónatan settist nú ad í Jerúsalem, og fór ad byggja og hressa vid borgina. 11. Baud hann þeim, sem unnu ad þessum størfum, ad hlada upp gyrdíngarnar, og víggyrda Síons fjall umhverfis med ferhyrndum steinum, og gjørdu þeir þad. 12. Þá flúdu útlendíngarnir, sem voru í víggyrdíngunum, er Bakkídes hafdi gjørt. 13. Og sérhvør yfirgaf sinn bústad, og fór til síns lands; 14. nema í Betsúru urdu nokkrir eptir, sem høfdu fallid frá løgmálinu og (þess) bodum, því þeir høfdu þar hæli.

15. Þegar Alexander Konúngur frétti, hvørja gódkosti Demetríus hefdi bodid Jónatan, og menn søgdu honum frá þeim orustum og afreksverkum, sem hann hefdi unnid, og brædur hans, og hve erfidt þeir hefdu átt; 16. þá sagdi hann: munum vér nokkurntíma finna þessa manns líka? skulum vér nú gjøra hann ad vini vorum og lidsbródur. 17. Og hann skrifadi honum til svo hljódandi bréf, og sendi med þad til hans: 18. „Alexander Konúngur heilsar bródur sínum Jónatani! 19. Vér høfum frétt af þér, ad þú sért voldugur madur, og hæfur til ad vera vinur vor. 20. Nú høfum vér í dag gjørt þig ad ædsta presti medal þjódar þinnar, og skalt þú nefnast vinur Konúngsins — hann sendi honum líka skarlatsklædi og gullkrans (kórónu) — skalt þú veita oss fylgi, og halda vináttu vid oss". 21. Og Júdas klæddist enum helga kyrtli í sjøunda mánudinum árid 160, á laufskála hátídinni; hann safnadi lidi, og afladi sér mikils herbúnadar.

22. Þegar Demetríus frétti þessa vidburdi, vard hann hryggur og mælti: 23. Hví høfum vér bakad oss þad, ad Alexander hefir ordid fyrri til enn vér, ad semja vináttu vid Gydínga, sér til styrks? 24. Eg skal líka skrifa þeim til upphvatníngar = (bónar) = bréf, og lofa þeim upphefd og fégjøfum, svo þeir verdi med mér til lidveitslu. 25. Hann skrifadi þeim því svolátandi bréf: „Demetríus Konúngur heilsar Gydínga þjód! 26. Vér høfum med føgnudi heyrt, ad þér hafid haldid sáttmálann vid oss, og stadid stødugir í vináttu vorri, en ekki lagt lag ydar vid óvini vora. 27. Verid nú einnin hér eptir stødugir í því, ad halda trygd vid oss, munum vér þá launa ydur gódu þad lidsinni er þér veitid oss; 28. og vér skulum géfa ydur upp margar kvadir, og sæma ydur gjøfum. 29. Og nú géf eg ydur fría, og øllum Gydíngum géf eg upp skattana, salt = tollinn og Konúngs skattinn. 30. Og í stadinn fyrir (ad þér hafid greidt) þridjúnginn af korninu, og helmínginn af trjá = vøxtunum, sem mér ber, þá sleppi eg frá þessum degi og hédan í frá ad láta heimta þad úr Júdeu landi, og úr þeim þremur

hérødum sem heyra því til, (en geingid hafa) frá Samaríu og Galíleu; og (þetta standi) frá ysirstandandi degi, og til eilífrar tídar. 31. Og Jerúsalem skal vera (frid)-helg og frí, og hennar takmørk, fyrir tíundum og skøttum. 32. Eg sleppi líka ysirrádunum ysir víginu í Jerúsalem, og géf þau, ædsta prestinum, ad hann setji þángad menn, er hunn útvelur, til ad vardveita þad. 33. Og sérhvørjum manni af Gydíngum, sem hertekinn hefir verid, (og fluttur) frá Júdeulandi í allt ríki mitt, géf eg lausn og frelsi kauplaust, og allir skulu þeir vera fríir frá skøttum, jafnvel af fénadi sínum. 34. Og allar hátídir og hvíldardagar og túnglkomuhelgar, og ákvednir (helgi) - dagar, og þrír dagar á undan (hvørri) hátíd, og þrír dagar eptir hátídina, skulu allir vera skattlausnar - og frelsis - dagar fyrir alla Gydínga, sem eru í ríki mínu; 35. skal einginn hafa vald til ad gjøra (þeim mein) eda hindra nokkurn þeirra í nokkurum hlut. 36. Líka skal velja þrjátíu þúsundir manns af Gydíngum til ad gánga í Konúngsins lid, og skal þeim verda géfinn máli, eins og sæmir øllu lidi Kóngsins. 37. Sumir þeirra skulu settir verda ysir Konúngsins stóru víggyrdíngar, og sumir af þeim skipadir til ad gégna ríkisins naudsynjum, sem trúlega þarf ad rækja; og ysirmenn þeirra og fyrirlidar skulu vera (nokkrir) af sjálfum þeim; þeir skulu fara eptir sínum eigin løgum, einsog Kónginn hefir skipad i Júdeulandi. 38. Og hvad vidvíkur þeim þremur hérødum, sem løgd eru til Júdeu frá Samaríu fylki, þá skulu þau tilheyra Júdeulandi, svo þau séu álitin ad vera undir eins manns stjórn, og hlýdi eingu valdi nema ædsta prestsins. 39. Tólómeu og plátsid sem henni tilheyrir, hefi eg géfid helgidóminum í Jerúsalem, ad gáfu, til sæmilegs kostnadar uppá helgidóminn. 40. Eg géf líka (ætla ad géfa) á ári hvørju fimtán þúsund sikla silfurs af Konúngsins tekjum, af þeim stødum sem honum tilheyra. 41. Og allt þad sem umfram er, sem féhyrdararnir hafa ekki greidt, einsog á fyrstu árunum, þad skulu þeir nú greida hédan í frá til byggíngar (Guds) - húsins. 42. Hvad ennfremur vidvíkur þeim fimm þúsund siklum silfurs, sem eg dró af tekjum helgidómsins, eptir hvørs árs reikníngum, þá skal einnig þessu verda skilad aptur, af því þad tilheyrir hinum þjónandi prestum. 43. Og allir sem flýa kunna í musterid í Jerúsalem, og í øll þess takmørk, er þeir eru skyldugir um Konúngs skatt eda hvad annad, þá skulu þeir fá lausn, med øllu sem þeir eiga í ríki mínu. 44. En til ad byggja og hressa vid helgidóminn, skal kostnadurinn greidast af tekjum Konúngsins; 45. og til ad blada Jerúsalemsborgar veggi, og víggyrda hana hrínginn í kríng, skal kostnadurinn einnig greiddur verda af tekjum Konúngsins, sømuleidis til þess ad bygdar verdi gyrdíngarnar í Júdeu."

46. En þegar Jónatan og fólkid heyrdu þessi ummæli, þá trúdu þeir þeim ekki, né gáfu þeim gaum, því þeir minntust þeirrar miklu ólukku, sem hann (Demetríus) hafdi gjørt Ísraelsmønnum, er hann þjakadi þeim ákaflega. 47. En þeim gédjadist vel ad Alexander, af því hann hafdi ordid fyrri til ad bjóda þeim frid og vóru þeir med honum alla æfi hans. 48. Alexander Konúngur safnadi miklu lidi, og setti herbúdir gégnt Demetríusi. 49. Løgdu nú bádir Konúngarnir til orustu, flýdi lid Demetríusar, en Alexander elti hann, og vard þeim ysirsterkari. 50. Herdti hann mjøg á orustunni, þángad til komid var sólarlag, og féll Demetríus á þeim sama degi.

51. Alexander sendi sendiherra til Tólómeusar, Egyptalands Konúngs, med svo hljódandi skilabod: 52. Þared eg er nú kominn aptur í Kóngsríki mitt, og setstur í hásæti fedra minna,

og búinn ad ná völdum, og vinna á Demetríusi, og leggja undir mig land vort, — 53. Því eg átti vid hann orustu, féll hann, og lid hans fyrir oss, en vér settumst í hásætid í hans Kóngsríki: — 54. Þá skulum vid nú binda vináttu med okkur, og géfir þú mér dóttur þína fyrir konu, ad eg mægist vid þig, skal eg þá géfa þér gjafir, og henni, sambodnar þér. 55. Tólómeus Konúngur, gaf svolátandi svar: þad er gjæfudagur, á hvörjum þú komst aptur í land fedra þinna, og settist á hásætid í ríki þeirra. 56. Skal eg veita þér þad sem þú skrifadir um; en kom þú til móts vid mig í Tólómeu, svo vid gétum sjest, skal eg stofna mægdir vid þig einsog þú sagdir. 57. Sídan fór Tólómeus sjálfur, og dóttir hans Kleópatra úr Egyptalandi og komu til Tólómeu árid 162. 58. Alexander Konúngur kom til móts vid hann, og gipti honum Kleópötru dóttur sína, og héldt brúdkaup hennar í Tólómeu, einsog Kóngar (eru vanir) med mikilli dýrd. 59. Og Alexander Konúngur skrifadi Jónatan til, ad koma til fundar vid sig. 60. Hann fór, med vidhöfn, til Tólómeu, og fann þar báda Kóngana; gaf hann þeim og vinum þeirra, gull og silfur, og margar gjafir, svo hann fann nád fyrir þeim. 61. Þá söfnudust til hans (Kóngsins) banvænir (bakmálugir) menn af Ísrael, og óhlutvandir menn klögudu hann (Jónatan), en Konúngur gaf þeim ekki gaum. 62. Kóngurinn baud ad þeir færdu Jónatan úr fötum hans, en klæddu hann í skarlat (skarlats föt), og þeir gjördu svo. 63. Og Kóngurinn setti hann hjá sér, og sagdi vid gjædínga sína: farid med hann midt í borgina, og úthrópid: ad einginn skuli kjæra hann um nokkurn hlut, og ad einginn skuli gjöra honum óskunda í nokkru. 64. Og þad skédi, þegar áklagendur hans sáu vegsemd hans, einsog hinir höfdu úthrópad, og ad hann var íklæddur skarlati, þá flýdu þeir allir. 65. En Konúngurinn hafdi hann í hávegum, og skrifadi (reiknadi) hann medal sinna bestu vina, og gjördi hann ad herhöfdíngja og jarli. 66. Og Jónatan snéri aptur til Jerúsalem med fridi og fögnudi.

67. Árid 165 kom Demetríus Demetríusarson frá Krít heim í land fedra sinna. 68. Þegar Alexander Konúngur frétti þad, vard hann mjög hryggur, og fór til Antíokíu. 69. Demetríus gjördi Apollóníus, sem rédi fyrir Nedra-Sýrlandi, ad lidsforíngja, safnadi miklum her, og lagdist hjá Jamníu, og hann sendi til Jónatans hins ædsta prests, og lét skila: 70. Þú ert sá eini, sem setur þig upp á móti oss, en eg er ordinn ad spotti og hádúng þín vegna; en hvörsvegna beitir þú valdi móti oss medal fjallanna? 71. Ef þú treystir lidi þínu, þá kom þú til vor ofaná sléttlendid, og reynum oss þar, því borga lidid er med mér. 72. Spyr þú, og komstu eptir hvör eg sé, og hinir lidsmenn mínir; þeir munu segja: ekki gétid þér haft fótfestu fyrir oss, því tvisvar urdu fedur þínir reknir á flótta í þeirra eigin landi. 73. Muntu nú og ekki fá stadist riddarana og þvílíkann her á sléttlendinu, þar sem hvörki er klettur né steinn, og einginn stadur til ad flýa í.

74. En þegar Jónatan heyrdi umrædur Apollóníusar, vard honum gramt í gédi, og útvaldi tíu þúsund strídsmenn, og fór útúr Jerúsalem, og Símon bródir hans kom til móts vid hann, honum til lidveitslu. 75. Hann setti herbúdir vid Joppe, en þeir vördu honum borgina, því setulid Appolloníusar var í Joppe; en þeir (Jónatan og Símon) herjudu á hana. 76. Borgarmenn urdu hræddir og luku upp (borginni) svo Jónatan fékk yfirrád yfir Joppe. 77. Þetta frétti Appollonius, og lagdist (ad stadnum) med þrjú þúsund riddara, og mikinn (fótgaungu) her; hann fór til

Asdod, eins og hann ætladi ad ferdast framhjá, en fór um leid útá sléttlendid, því hann hafdi fjølda riddara, og reiddi síg á þá. 78. Jónatan veitti honum eptirfør til Asdod, og lendti hvørutveggi hernum saman í orustu. 79. En Appollonius hafdi skilid eptir þúsund riddara í leyni á bak vid þá. 80. Jónatan vard þess vis, ad launsátur var ad baki honum; þeir slóu hríng um herlid hans, og køstudu skotvopnum á fólkid frá morgni til kvølds. 81. En fólkid stód kyrrt, eins og Jónatan hafdi bodid; en hestar hinna tóku ad mædast. 82. Þá tók Símon lid sitt, og rédist ad breidfylkíngunni, því riddara lidid var ordid þreytt, féllu þeir fyrir honum og flýdu. 83. Og riddaralidid tvístradist um vellina, þeir flúdu til Asdod, og skundudu inní Bet-dagon, godahof þeirra, til ad bjarga sér. 84. Jónatan brendi Asdod, og borgirnar umhverfis, og rænti úr þeim herfángi; og Dagons hof, og þá sem í þad høfdu flúid, brenndi hann í eldi. 85. Þeir sem féllu fyrir sverdi, ásamt med þeim, sem brendir urdu, voru hér um átta þúsund manns. 86. Þadan fór Jónatan og settist um Askalon, en borgarmenn geingu út á móti honum med mikilli vidhøfn. 87. Sídan fór Jónatan aptur til Jerúsalem med mønnum sínum, og høfdu þeir mikid herfáng. 88. Og svo fór, þegar Alexander Konúngur frétti þessa vidburdi, þá vyrdti hann Jónatan því meir. 89. Hann sendi honum gullbelti, eins og sídur er ad géfa ættíngjum Konúnganna; líka gaf hann honum stadinn Akkaron, med øllu því landi sem honum fylgdi, ad erfda gjøf.

## 11. Kapituil

Alexander er myrdtur; Demetríus kémst til ríkis, lofar Jónatan gódu, þyggur lidsstyrk ad honum, og bregdur sídan lofordinu; Antíókus Alexanders son verdur Kóngur; Herfarir Jónatans og Símonar.

1. Egyptalands Konúngur safnadi nú miklum her, eins og sandi vid sjáfarstrønd, og mørgum skipum, og ætladi ad ná ríki Alexanders undir síg med svikum, og bæta því vid ríki sitt. 2. Hann fór til Sýrlands, og þóktist fara med fridi; þeir sem bjuggu í borgunum, luku upp fyrir honum, og tóku honum vel, því Alexander Konúngur hafdi bodid, ad taka honum vel, af því hann var teingdafadir hans. 3. En þegar Tólómeus var kominn inní borgirnar, skildi hann eptir setulid í sérhvørri borg. 4. En þegar hann kom ad Asdod, sýndu menn honum Dagons hof, er brennt hafdi verid, og Asdod, og þorpin í kríng, sem høfdu verid rifin nidur, og líkamina sem fleygt hafdi verid, og þá, sem brendir voru, sem hann (Jónatan) hafdi brennt í strídinu; því þeir høfdu orpid hauga eptir þá vid veg hans. 5. Þeir søgdu Kónginum, hvad Jónatan hefdi adhafst, til ad nidra honum, en Konúngur þagdi vid. 6. Jónatan fór á fund Konúngs til Joppe, med vidhøfn, heilsudust þeir, og náttudu þar. 7. Og Jónatan fór med Kónginum allt ad vatnsfallinu, sem kallad er Elevterus, sídan hvarf hann aptur til Jerúsalem. 8. En Tólómeus Konúngur rédi yfir borgunum á strøndinni allt ad Selevkíu, sem liggur vid sjóinn, og hafdi hann illar rádagjørdir í huga, gégn Alexander. 9. Hann sendi sendiboda til Demetríusar Konúngs, og lét skila: kom þú, vid skulum gjøra sáttmála okkar í milli, skal eg gipta þér dóttur mína, sem Alexander á, og þú skalt drottna yfir ríki fødur þíns; 10. því mig ydrar þess, ad eg gaf honum dóttur mína, því hann hefir setid um ad myrda mig. 11. Líka gaf hann honum ad søk, ad hann hefdi viljad ná ríki sínu. 12. Tók hann dóttur sína frá honum og gaf hana Demetríusi,

breytti sinni sínu vid Alexander, svo óvinátta þeirra varð augljós. 13. Og Tólómeus fór til Antíókíu, og setti á høfud sér tvær kórónur, Asíu og Egyptalands. 14. En Alexander Konúngur var um þær mundir í Kilikíu, því þeir sem voru í þeim hérødum, høfdu fallid frá (honum). 15. Þegar Alexander frétti þetta, fór hann herfør móti honum; Tólómeus fór med lid sitt, mætti honum med styrkann her, og rak hann á flótta. 16. Og Alexander flúdi til Arabíu til ad leita hælis, en Tólómeus Kóngur vard voldugur. 17. En Sabdiel, hinn Arabiski, tók høfudid af Alexander, og sendi þad Tólomeusi. 18. Og Tólómeus Kóngur dó á þridja degi (eptir þetta) og þeir (menn hans) sem voru í víggyrdtu borgunum, urdu drepnir af hinum sem voru í víggyrdínguunum. 19. Og Demetríus vard Kóngur árid 167.

20. Um þetta leiti safnadi Jónatan mønnum úr Júdeu til ad herja á vígid í Jerúsalem, og hann reisti mørg hervyrki á móti því. 21. Þá fóru sumir, sem høtudu þjód sína, gudlausir menn, til Kóngsins, og søgdu honum, ad Jónatan væri setstur um vígid. 22. Þegar hann heyrdi þetta, vard hann reidur; en er hann hafdi heyrt þad, bjó hann sig strax og fór til Tólómeu, og skrifadi Jónatani, ad hann skyldi ekki sitja um vígid, heldur skyldi hann sem fyrst koma til fundar vid sig til Tólómeu. 23. Þegar Jónatan heyrdi þetta, skipadi hann ad halda áfram umsátrinu, en kjøri (sér til fylgdar) nokkra af øldúngum Ísraels og prestunum, og gaf sig sjálfann í hættuna. 24. Tók hann med sér silfur og gull og klædnad og adrar fleiri géstgjafir, og fór á Konúngs fund til Tólómeu, og fann nád fyrir honum. 25. Þá kløgudu hann einhvørjir órádvandir landar hans. 26. En Kóngurinn gjørdi vid hann, einsog hinir (Kóngarnir) á undan honum høfdu gjørt, og veitti honum vyrdíng í augsýn allra vina sinna. 27. Hann stadfesti hann í ædsta prests embættinu, og í øllum ødrum metordum sem hann hafdi haft ádur, og héldt hann ædstann sinna bestu vina. 28 Jónatan bad Konúnginn ad gjøra Júdeu skattfría, og hinar þrjár sýslurnar, og Samaríu, en lofadi honum 300 vættum. 29. Kónginum gédjadist þad vel, og skrifadi Jónatani bréf um allt þetta, á þessa leid: 30. „Demetríus Konúngur heilsar bródur sínnm Jónatani, og Gydínga þjód! 31. Afskrift af bréfi því, sem vér høfum skrifad frænda vorum Lastenesi vidvíkjandi ydur, ritum vér ydur líka, svo þér sjáid þad: 32. „„Demetríus Konúngur heilsar fødur sínum Lasteneſi! 33. Vér høfum ásett oss ad gjøra gott Gydíngunum, vinum vorum, sem gjæta réttar vid oss, søkum velvildar þeirrar, er þeir hafa sýnt oss; 34. þarfyrir høfum vér géfid þeim til stødugrar eignar, bædi Júdeuland og þrjár sýslurnar: Afæremu, Lyddu og Ramatem, sem ad vóru lagdar til Júdeu frá Samaríu, og allt sem þeim tilheyrir, øllum sem offra í Jerúsalem, í stadinn fyrir tekjurnar, sem Kóngurinn hefir feingid frá þeim ad undanførnu árlega af jardar ávøxtum og trjáa. 35. Og hinar adrar tekjur, sem oss bera, frá þessum tíma, af tíundum, og skøttum, sem oss tilheyra, og saltjarnirnar (salt-tollinn), og Konúngs skattinn, sem oss ber, þetta allt géfum vér þeim upp ad fullu og øllu. 36. Og øldúngis ekkért af þessu skal úr gyldi gánga frá því nú og til ævarandi tídar. 37. Sjáid nú til ad taka afskrift af þessu (bréfi), hún sé feingin Jónatani í hendur, og løgd á merkann stad á enu helga fjalli.""" 38. Þegar Demetríus Konúngur sá ad allt var kyrt fyrir honum í landinu, og ekkért honum mótstædilegt, þá sleppti hann øllu lidi sínu, sérhvørjum heim til sín, nema útlenda lidinu, sem hann hafdi safnad úr eyum heidíngjanna,

en allur her fedra hans vard honum óvinveitt-
ur fyrir þad. 39. En er Tryfon, sem ádur
hafdi verid med Alexander, sá ad allur herinn
nøldradi yfir Demetríusi, þá fór hann til Em-
alkúels, hins Arabiska, sem fóstradi Antíokus,
úngann son Alexanders; 40. og lagdi ad honum,
ad láta sig fá hann (Antíokus) ad hann gjæti
ordid Kóngur í stad fødur síns, hann sagdi hon-
um líka frá øllu, sem Demetríus hafdi adhafst,
og frá hatrinu, sem herlidid hafdi á honum,
var hann þar marga daga.

41. Jónatan skrifadi nú Demtríusi Konúngi
til, og bad hann ad reka út úr Jerúsalem þá
sem vóru í slotinu og víggyrdíngunum, því
þeir láu í ófridi vid Ísraelsmenn. 42. Og
Demetríus skrifadi Jónatani til aptur á þessa
leid: „eg skal ekki einasta gjøra þetta fyri þig og
þjód þína, heldur skal eg líka gjøra þér og þjód
þinni mikla sæmd, þegar eg fæ tækifæri til þess.
43. Nú færi þér vel, ef þú sendir mér stríds-
menn til lidveitslu, því allt mitt herlid hefir
brugdist mér". 44. Jónatan sendi honum þá þrjú
þúsund vaska strídsmenn til Antíokíu, fóru þeir
til Konúngsins, og vard Kóngur feginn komu
þeirra. 45. Borgarmenn søfnudust saman midt
í borgina, hér um hundrad og tuttugu þúsundir
manns, og ætludu ad drepa Kónginn. 46.
Konúngur flúdi í slotid, en bæarmenn settust
um gøtur borgarinnar, og fóru ad herja. 47.
Þá kalladi Konúngurinn á Gydínga til hjálp-
ar, og þyrptust þeir ad honum allir saman,
og undireins dreifdu þeir sér allir um borgina,
og drápu á þeim degi vid hundrad þúsund
manns í borginni, 48. brendu borgina, og tóku
mikid herfáng á þeim sama degi, og frelsudu
Kónginn. 49. En þegar borgarmenn sáu, ad
Gydíngar høfdu feingid vald yfir borginni,
einsog þeir vildu, þá féllst þeim hugur, hróp-
udu til Kóngsins, bádu, og søgdu: 50. gef
þú oss grid, og lát Gydínga hætta ad herja á
oss og borgina. 51. Sídan køstudu þeir vopn-
um og gjørdu frid; veittist Gydíngum heidur
af Kónginum og af øllum sem vóru í ríki hans,
snéru þeir aptur til Jerúsalem med mikid her-
fáng. 52. Sídan settist Demetríus Konúngur
á hásætid í ríki sínu, og allt var kyrrt í land-
inu fyrir honum. 53. Þá sveikst hann um
allt sem hann hafdi lofad, en breytti sinni sínu
vid Jónatan, og launadi honum ekki þá vel-
vild, sem hann hafdi audsýnt honum, heldur
þraungvadi honum mjøg.

54. En eptir þetta kom Tryfon til baka,
og Antíokus med honum, úngur dreingur; hann
vard Kóngur og setti upp á sig kórónuna.
55. Ad honum safnadist allt lidid, sem Deme-
tríus hafdi látid fara víds vegar, og børdust
þeir vid hann (Demetríus), flýdi hann og vard
rekinn á flótta. 56. En Tryfon tók dýrin
(fílana) og fékk vald yfir Antíokíu. 57. An-
tíokus úngi skrifadi nú Jónatani til svo hljód-
andi: „Eg stadfesti þig í ædsta prests em-
bættinu, og set þig yfir hin fjøgur héródin, og
gjøri þig einn af vinum Kóngsins." 58. Hann
sendi honum gullkér og bordbúnad, og gaf
honum leyfi til ad drekka úr gullkérum, og vera
í skarlatsklædum og brúka gullbelti. 59. Og
Símon bródur hans gjørdi hann ad høfuds-
manni frá Týrus og allt ad Egyptalands tak-
mørkum. 60. Jónatan tók sig upp, fór yfir
fljótid, og ferdadist um borgirnar, og allur
Sýrlands her safnadist ad honum til lidveitslu,
hann fór til Askalon, og tóku bæarmenn vid
honum med mikilli virdíngu. 61. Þadan fór
hann til Gasa, en Gasa-búar lokudu fyrir hon-
um, settist hann þá um borgina og brendi
festíngar hennar í eldi, og rænti þær. 62.
Þá beiddu Gasa-búar Jónatan um frid, hann
handsaladi þeim grid, og tók syni høfdíng-
janna hjá þeim fyrir gisla, og sendi þá til
Jerúsalem, en fór sídan yfir landid allt ad

Damaskus. 63. Nú frétti Jónatan, ad høfdíngjar Demetríusar væru komnir til Kades í Galíleu med mikid lid, og ætludu ad setja hann af sýslu sinni. 64. Fór hann móti þeim, en skildi Símon bródur sinn eptir í landinu. 65. Símon setti herbúdir vid Betsúru, herjadi á hana í marga daga, og sat um hana. 66. Þeir (borgarmenn) bádu hann um grid, og gaf hann þeim þau, en rak þá burt þadan, tók borgina, og setti setulid í hana. 67. En Jónatan og lid hans settu herbúdir vid vatnid Genesar, en fóru snemma um morguninn til sléttlendisins Nasor. 68. Og sjá! útlendínga herinn mætti honum á sléttlendinu, høfdu þeir sett launsátur fyrir hann uppá fjøllunum, en fóru sjálfir anspænis á móti honum. 69. Launsáturs lidid spratt nú upp úr stødvum sínum og lagdi til orustu, flýdu þá allir menn Jónatans; 70. Einginn af þeim vard eptir, nema Mattatías Absalonsson og Júdas Kalfíson, hershøfdíngjar. 71. Þá reif Jónatan klædi sín, jós moldu yfir høfud sér, og badst fyrir. 72. Sídan snéri hann móti þeim til stríds, og rak þá á flótta, svo þeir flýdu. 73. Þetta sáu menn hans sem flúid høfdu, snéru þeir þá vid og ráku flóttann med honum allt til Kades, þar sem herbúdir þeirra stódu og løgdust þar. 74. Á þeim degi féllu af útlendíngunum vid þrjú þúsund manns, og Jónatan snéri aptur til Jerúsalem.

## 12. Kapítuli.

*Jónatan endurnýar sáttmálann vid Rómverja og Spørtumenn, hrædir Demetríusar her, verdur svikinn af Tryfon.*

1. Þegar Jónatan sá, ad hann hafdi nú hentugann tíma, kjøri hann menn, og sendi til Rómaborgar til ad stadfesta og endurnýa vináttuna vid þá (Rómverja). 2. Og til Spørtumanna og annara stada sendi hann líka bréf í sama tilgángi. 3. Þeir fóru til Rómaborgar, geingu inní rádstofuna og mæltu: Jónatan ædsti prestur, og Gydínga þjód, sendi oss, til ad endurnýa vináttuna vid þá og félagsskapinn, eptir því sem ádur var. 4. Og þeir afhendtu þeim bréf til þeirra á hvørjum stad, ad þeir létu þá fara med fridi til Júdeu lands. 5. Og þetta er afskrift af bréfunum sem Jónatan skrifadi Spartverjum: 6. „Jónatan ædsti prestur, og øldúngar þjódarinnar, og prestarnir, og hinn annar Gydínga lýdur, senda Spartverjum, brædrum sínum, kvedju sína! 7. Fyrir laungu sídan voru bréf send til Oniasar ædsta prests frá Daríusi, sem var Kóngur medal ydar, ad þér værud brædur vorir, eins og stendur í afskriftinni. 8. Og Onías tók heidurlega móti sendimanninum, og tók vid bréfunum, er berlega var samid í um strídsfélag og vináttu. 9. Og þó vér þurfum þess nú ekki vid, þared vér høfum huggun af enum helgu bókum, er vér høfum í høndum: 10. þá vildum vér þó reyna ad senda, til ad endurnýa vid ydur brædra félagid og vináttuna, svo ad vér verdum ekki ókunnugir ydur, því nú er lángur tími lidinn sídan þér sendud til vor. 11. Þar fyrir minnumst vér ydar óaflátanlega bædi á hátídunum og á ødrum hæfilegum døgum, vid offurgjørdir vorar og bænahøld, eins og skyldt er og sæmilegt ad minnast brædra. 12. Vér føgnum yfir tign ydvarri. 13. En margar þrautir hafa umkríngt oss, og mørg stríd, því Kóngarnir í kríngum oss hafa herjad á oss. 14. En vér vildum ekki ónáda ydur, né hina lidsbrædur og vini vora, í þessum strídum; 15. því vér høfum adstod af himnum, sem hjálpar oss, og vér høfum ordid frelsadir frá óvinum vorum, og óvinir vorir hafa ordid lítillækkadir. 16. Nú høfum vér kjørid Númeníus Antíokusson og Antípater Jasons-

son, og sendt þá til Rómverja til ad endur-
nýa vid þá vináttuna og hinn fyrri lidssamn-
íng. 17. En vér høfum bodid þeim, ad fara
einnin til ydar, og heilsa ydur, og afhenda
ydur bréfin frá oss um endurnýun brædrafé-
lags vors. 18. Færi ydur nú vel, ef þér
svørudud oss uppá þetta."

19. Þetta er afskrift af bréfinu sem hann
(Spørtu kóngur) sendi: 20. „Oniares Spart-
verja konúngur heilsar Oniasí, ædsta presti! 21.
Þad hefir fundist í ritum, bædi um Spartverja
og Gydínga, ad þeir séu brædur, og ad þeir
séu af Abrahams ætt. 22. Og fyrst vér nú
vitum þetta, þá fer vel á því, ad þér skrifid oss
um ydar frid (hagi). 23. Og vér skrifum yd-
ur aptur: fénadur ydar og eignir heyra oss til,
og þad sem vér eigum, heyrir ydur til; bjód-
um vér nú ad þeir skili þessu til ydar".

24. Jónatan frétti, ad lidsfóríngjar Deme-
tríusar væru komnir aptur med mikinn her,
meiri enn ádur, tilad berjast vid sig. 25. Fór
hann þá frá Jerúsalem og mætti þeim í hér-
adinu Amatitis, því hann vildi ekki géfa þeim
tóm til ad komast inní sitt land. 26. Sendi
hann njósnarmenn í herbúdir þeirra, þeir komu
aptur og skýrdu honum frá, ad þeir væru bún-
ir ad rada sér svona, til ad rádast á þá um nótt-
ina. 27. En eptir sólarlag skipadi Jónatan
mønnum sínum ad vaka, og vera undir vopn-
um, og búast vid bardaga alla nóttina; líka setti
hann útverdi umhverfis herbúdirnar. 28. Þá
fréttu mótstødumennirnir, ad Jónatan og menn
hans væru búnir til bardaga, urdu þeir því
hræddir og hugskélfdir, og kyndtu elda í herbúd-
um sínum. 29. En þeir Jónatan vissu þetta
ekki fyrri enn snemma um morguninn, því þeir sáu
eldana brenna. 30. Jónatan elti þá, en nádi
þeim ekki, því þeir vóru komnir yfir fljótid
Eleuterus. 31. Þá snéri Jónatan móti Ara-
biskum, sem nefnast Sabedear, vann þá, og rænti
herfángi. 32. Sídan tók hann sig upp, kom
til Damaskus og fór yfir allt landid. 33. Sí-
mon tók sig líka til og fór allt til Askalon og
víggyrdínganna þar í grend, héldt til Joppe,
og tók hana; 34. Því hann hafdi heyrt ad
bæarmenn ætludu ad géfa vígid upp fyrir De-
metríusar mønnum; setti hann þar vardlid til-
ad geyma borgarinnar. 35. Jónatan kom nú
aptur, stefndi øldúngum lýdsins á samkomu, og
rádgadist vid þá um ad byggja víggyrdíngar í
Júdeu, 36. og hækka betur gyrdíngarnar kríng-
um Jerúsalem, og hlada háfann og stórann
múrvegg milli vígisins og borgarinnar, tilad
skilja þad frá borginni, svo ad þad væri sér,
ad þeir hvørki seldu þar né keyptu. 37. Søfn-
udust menn tilad byggja borgina, svo hún nádi
ad gyrdíngunni vid lækinn, sem var ad aust-
anverdu, og luku þeir vid partinn, sem kallad-
ur er Kafenata. 38. Og Símon bygdi Adidu
í Sefelu, og gjørdi hlidin rambyggileg med slag-
brøndum.

39. Tryfon leitadist vid ad verda Kóngur í
Asíu, og setja upp kórónuna, og útrétta hønd
sína móti Antíokus Kóngi. 40. En hann var
hræddur um, ad Jónatan mundi aldrei lída sér
þad, heldur mundi hann berjast vid sig, leitadi
hann því tækifæris til ad ná Jónatan til ad
drepa hann, fór hann af stad og kom til Bet-
san. 41. Jónatan fór út á móti honum med
fjørutíu þúsund útvaldra strídsmanna, og kom
til Betsan. 42. Þegar Tryfon sá, ad Jón-
atan var kominn med mikid lid, þordi hann
ekki ad útrétta hendur sínar móti honum; 43.
heldur tók honum virduglega, baud øllum vinum
sínum ad heidra hann, gaf honum gjafir, og
skipadi lidi sínu ad hlýda honum einsog sjálf-
um sér. 44. Og hann sagdi vid Jónatan: til
hvørs hefir þú ónádad allt þetta fólk, þar ed
ekki horfir til ófridar okkar á milli! 45. Láttu
þá nú fara heim til sín, en veldu þér fáeina

menn til ad vera hjá þér, og kom med mér til Tólómeu, skal eg géfa hana þér á vald, og hinar víggyrdíngarnar, og herlidin, og alla embættismennina, sídan ætla eg ad hverfa aptur og fara burt, því í þessu skyni hefi eg híngad farid. 46. Hann (Jónatan) trúdi honum, og gjørdi einsog hann sagdi, lét herinn fara burt, og fóru þeir til Júdeu lands. 47. En þrjú þúsund manns lét hann vera eptir hjá sér, og skildi tvø þúsund af þeim eptir í Galíleu, en þúsund fóru med honum. 48. En þegar Jónatan var kominn inní Tólómeu, lokudu Tólómeu borgarmenn hlidunum, handtóku hann, og drápu med sverdi alla sem inn høfdu farid med honum. 49. Og Tryfon sendi lid og riddara til Galíleu, og til ens mikla sléttlendis, til ad afmá alla, sem héldu med Jónatan. 50. Þegar þeir urdu þess áskynja, ad Jónatan væri fánginn og veginn, og menn hans, þá hvøttu þeir hvør annann, og fóru af stad í hóp, búnir til bardaga. 51. Og þeir sem ofsóktu þá, sáu, ad líf sitt var í vedi, og snéru þá aptur. 52. En hinir komust allir med fridi heim í Júdeu land, og syrgdu Jónatan, og menn hans, og voru mjøg hræddir, og allur Ísrael harmadi mjøg. 53. Og allir heidíngjarnir umhverfis þá leitudust vid ad afmá þá, því þeir søgdu: þeir hafa hvørki fyrirlida né hjálparmann, látum oss þar fyrir herja á þá, og afmá minníngu þeirra medal manna.

## 13. Kapítuli.

Símon gjørist foríngi Gydínga. Tryfon drepur Jónatan, og Antíókus gjørist sídan Konúngur, Vinátta Demetríusar vid Gydínga. Afreksverk Símonar.

1. Nú frétti Símon, ad Tryfon hafdi safnad miklu lidi til ad fara í Júdeu land, og eyda þad. 2. Og hann sá, ad fólkid var skélft og hrædt; fór hann til Jerúsalem, og safnadi lýdnum saman. 3. Hann upphvatti þá, og sagdi vid þá: þér vitid sjálfir, hve mikid eg, og brædur mínir og ætt fødur míns høfum unnid fyrir løgmálid og helgidóminn, og þau strίd, og þá neyd, sem vér høfum ratad í. 4. Søkum þess eru brædur mínir allir fallnir vegna Ísraels, svo eg er einn eptir. 5. Verdi mér þad nú ekki ad spara líf mitt á allri þessari hørmúngatíd, því mér er ekki vandara um enn brædrum mínum. 6. Heldur mun eg hefna þjódarinnar, og helgidómsins, og kvenna og barna vorra, því allir heidíngjarnir hafa þyrpst saman til ad afmá oss, søkum fjandskapar. 7. Þá lifnadi andinn í fólkinu, strax sem þad heyrdi þessar fortølur. 8. Og þeir svørudu med hárri røddu, og søgdu: þú ert foríngi vor, í stad Júdasar og Jónatans bródur þíns. 9. Heya þú stríd vort, en vér skulum gjøra allt sem þú býdur oss. 10. Og hann safnadi øllum strídsmønnum, og flýtti sér ad ljúka vid Jerúsalems gyrdíngar, og víggyrdti hana allt um kríng. 11. Og hann sendi Jónatan Absalons son, og med honum nægann her til Joppe, hann rak út þá sem voru í borginni, og settist ad í henni.

12. Tryfon fór nú frá Tólómeu vid mikinn her, og ætladi til Júdeu lands, og var Jónatan med honum í vardhaldi. 13. En Símon hafdi sett herbúdir í Adida framantil á sléttlendinu. 14. Vard Tryfon áskynja um, ad Símon væri kominn í stad Jónatans bródur síns, og ad hann ætladi ad leggja til orustu vid sig; sendi hann því sendiboda til hans med þessi skilabod: 15. Vér høldum Jónatan bródur þínum, søkum þess fjár, sem hann stendur í skuld um vid Konúngs sjódinn, af embættunum sem hann hafdi. 16. Sendtu því (féd) hundrad vættir silfurs, og tvo af sonum hans í gislíng, ad hann falli ekki frá

oss þegar hann er ordinn laus, þá skulum vér sleppa honum. 17. Ad sönnu vissi nú Símon, ad svik bjuggu undir þessum bodum, en sendi samt féd og dreingina, svo hann bakadi sér ekki mikla óvild af fólkinu, sem kynni ad segja: 18. af því eg sendi honum ekki silfrid og dreingina, vard hann (Jónatan) drepinn. 19. Þess vegna sendi hann dreingina, og hundrad vættirnar, en hann (Tryfon) sveikst um ad sleppa Jónatan. 20. Eptir þetta kom Tryfon og ætladi ad fara inní landid, tilad eyda þad, og umkríngdi veginn, sem liggur til Adóra; en Símon og lid hans fór á móti honum allstadar, hvört sem hann fór. 21. En þeir sem í víginu vóru, sendu sendimenn til Tryfons, og bádu hann ad koma fljótt til þeirra gégnum eydimörkina, og senda sér vistir. 22. Þá bjó Tryfon allt sitt riddaralid, og ætladi ad koma sömu nóttina, en snjór var hardla mikill, svo hann komst ekki áfram fyrir fönn; hann fór því, og kom til Galaaditis. 23. En er hann var kominn nálægt Baskama, drap hann Jónatan, og var hann grafinn þar. 24. Sídan snéri Tryfon aptur og fór heim í sitt land. 25. En Símon sendi, og lét sækja bein Jónatans bródur síns, og grafa þau í Módin, borg fedra hans. 26. Og allir Ísraels menn hörmudu hann mjög, og syrgdu hann í marga daga. 27. Og Símon bygdi yfir legstad födur síns og brædra sinna, og gjördi hann háfann tilsýndar med höggnum steinum aptan og framan; 28. og reisti þar ofaná sjö (mindar)-stittur, eina gégnt annari, handa födur sínum og módur og fjórum brædrum. 29. Og hann gjördi hertýgja mindir á þeim (stittunum), setti stórar stodir í kríng, og bjó til á stodunum alvepni, til ævarandi frægdar (nafns), og hjá alvepninu útskorin skip, til sýnis fyrir alla þá sem sigldu um hafid. 30. Þessi legstadur, sem hann gjördi í Módin, er vid lídi enn í dag.

31. Enn Tryfon beitti svikum vid Antiokus konúng hinn únga, og drap hann; 32. og gjördist kóngur í hans stad, og setti á sig Asíu kórónu, og vann landinu stórtjón. 33. En Símon byggdi vígi í Júdeu, og umgyrdti þau med háfum turnum, og miklum veggjum, og hlidum og slagbröndnm, og lét vistir í vígin. 34. Og Símon kjöri til menn, og sendi þá til Demetríusar Konúngs, til ad útvega landinu vægd, því allar Tryfons athafnir voru rán. 35. Og Demetríus Konúngur gjördi honum aptur svo látandi bod, svaradi honum, og skrifadi honum svohljódandi bréf: 36. „Demetríus Konúngur heilsar Símoni ædsta presti, vini Konúngsins, og öldúngunum og Gydínga þjód! 37. Gullkórónuna og skarlats skykkjuna sem þér sendud, höfum vér medtekid, og erum fúsir til ad gjöra gódann frid vid ydur, og skrifa embættismönnunum, ad létta af ydur álögum. 38. Og allt sem vér höfum samid vid ydur, skal stödugt standa, og vígi þau, sem þér hafid byggt, skulu tilheyra ydur. 39. Vér fyrirgéfum líka yfirsjónir og afbrot allt til þessa dags; og Konúngsskatturinn, sem þér standid í skuld um, og hvör annar tollur, sem goldinn hefir verid í Jerúsalem, skal ekki goldinn hér eptir. 40. Og ef einhvörjir af ydur eru hæfir til ad gánga í vora þjónustu, þá skal þad leyft, og fridur skal vera milli vor".

41. Árid 170 var oki heidíngjanna svipt af Ísrael. 42. Og Ísraels lýdur hóf ad skrifa svo í bréfum og gjörníngum: „Á fyrsta ári Símonar ædsta prests, og hershöfdíngja og fyrirlida Gydínga." 43. Um þessar mundir settist Símon um Gasaborg, og sló hríng um hana med lidi sínu, bjó til borgabrjót, og ók honum ad stadnum, renndi á einn turn og vann hann. 44. Þá stukku þeir út, sem í borgarbrjótnum vóru, og inn í borgina; gékk

þá mikid á í borginni. 45. Borgarmenn fóru þá, med konum og børnum uppá gyrdínguna, rifu klædi sín, og kølludu med hárri rødd, og bádu Símon ad handsala þeim grid. 46. Og þeir søgdu: breyt þú ei vid oss eptir illsku vorri, heldur eptir miskunsemi þinni. 47. Og Símon aumkadist yfir þá, og bardist ekki vid þá, heldur rak þá útúr borginni, og hreinsadi húsin, sem skurdgodin vóru í, og þannig kom hann inní borgina med lofgjørdar- og þakkar-saung. 48. Og hann rak út úr henni allt sem óhreint var, og setti þángad menn, sem héldu løgmálid, víggyrdti hana, og bygdi sjálfum sér bústad í henni. 49. En þeim sem voru í Jerúsalems vígi, var varnad ad fara út og inn í landid, og ad selja og kaupa, svo þá húngradi mjøg, og allmargir af þeim dóu úr húngri. 50. Þeir hrópudu til Símonar, og bádu um frid, og hann veitti þeim frid, en rak þá burt þadan, og hreinsadi vígid af saurguninni; 51. og fór inní þad á tuttugasta og þridja degi í ødrum mánudi árid 171 med loffaungvum og pálmavidargreinum, hørpum, bumbum, hljódfærum, saungvum og lofkvædum, af því voldugur óvinur var sigradur af Ísrael. 52. Og hann skipadi ad halda þennann dag árlega hátídlegann med føgnudi; og hann víggyrdti enn betur musteris fjallid, sem var vid vígid, og bjó þar sjálfur og menn hans. 53. Og Símon sá, ad Jóhannes sonur hans var vaskur madur, og gjørdi hann ad hershøfdíngja yfir øllu lidinu; hann bjó í Gasara.

## 14. Kapítuli.

Demetríus fánginn. Stjórn og tign Símonar. Sáttmáli vid Rómverja og Spartverja.

1. Árid 172 safnadi Demetríus Kóngur lidi sínu, og fór til Medíu ad afla sér lidsstyrks til ad berjast vid Tryfon. 2. En Arsakes Kóngur í Persíu og Medíu frétti ad Demetríus væri kominn í land hans, sendi hann þá einn af hershøfdíngjum sínum til ad ná honum lifandi. 3. Hann fór, og vann Demetríusar her, tók hann til fánga, og færdi Arsakesi, og hann setti hann í vardhald.

4. Í Júdeu landi var fridur alla æfi Símonar, hann leitadist vid ad gjøra þjód sinni gott, og gédjadist þeim æfinlega vel stjórn hans og tign. 5. Auk annara sinna heidursverka gjørdi hann Joppe ad høfn, svo lenda mætti þar frá eyunum í hafinu. 6. Hann jók út landamerki þjódar sinnar, og drottnadi yfir landinu. 7. Og safnadi mørgum faungum, og fékk yfirrád yfir Gasara og Betsúra, og víginu, og tók úr því allt sem óhreint var, og einginn veitti honum mótstødu. 8. Þeir yrktu jørd sína í fridi, og jørdin var frjóssøm, og aldintré gáfu ávexti sína. 9. Øldúngarnir sátu á strætunum, allir tøludust sameiginlega vid um þjódarinnar gagn, og æskumennirnir klæddust skrauti og strídskápum. 10. Hann útvegadi vistir handa borgunum, og lagdi þeim til víggyrdíngar, svo frægdar hans var getid til ystu takmarka jardarinnar. 11. Hann gjørdi frid í landinu, og Ísrael gladdist miklum føgnudi. 12. Sérhvør sat undir víntré sínu, og fíkjutré sínu, því einginn var sem skélfdi þá. 13. Óvinurinn var farinn úr landinu, og Kóngarnir voru sigradir. 14. Hann adstodadi alla lítilmagna medal fólks síns, stundadi rétt a), og afmádi sérhvørn rángsnúinn og órádvandann. 15. Hann prýddi helgidóminn, og fjølgadi áhøldum helgidómsins.

16. Þad spurdist til Rómaborgar, ad Jónatan væri daudur, og til Spørtu, og hrygdust þeir af því mjøg. 17. En þegar þeir heyrdu, ad Símon bródir hans væri ordinn ædsti

V. 14. *a.* Adrir: ransakadi løgmálid.

prestur í hans stad, og rédi landinu og borgunum í því: 18. Þá skrifudu þeir honum til á koparspjøld, til ad endurnýa vid hann vináttuna, og lidssáttmálann, sem þeir høfdu gjørt vid Júdas og Jónatan brædur hans. 19. Og þau (bréfin) voru lesin upp fyrir søfnudinum í Jerúsalem. 20. Er þetta afskrift af bréfunum sem Spartverjar sendu: „Høfdíngjar Spartverja og borgarmenn heilsa Símoni ædsta presti, og øldúngunum og prestunum, og hinum Gydíngunum, brædrum sínum! 21. Sendimennirnir, sem gjørdir voru út til þjódar vorrar, hafa skýrt oss frá vegsemd ydvarri og heidri, og gløddumst vér vid komu þeirra. 22. Og vér høfum skrifad upp, þad sem þeir søgdu í þjódrádinu á þessa leid: Númeníus Antíókusson og Antípater Jasonsson sendibodar Gydínga, komu til vor, til ad endurnýa vináttuna vid oss. 23. Og fólkinu þókknadist ad taka virduglega móti þessum mønnum, og ad setja afskrift af rædu þeirra í þjódbækurnar, svo ad Spartverja þjód hafi hana í minni, en afskrift þessa høfum vér ritad Símoni, ædsta presti". 24. Eptir þetta sendi Símon Númeníus til Rómaborgar, med stórann gullskjøld, sem vog þúsund Mínur, til ad semja vid þá lids sáttmála.

25. En er landslýdurinn heyrdi þetta, søgdu þeir: hvørnig eigum vér ad umbuna Símoni og sonum hans? 26. Því hann hefir sýnt dugnad, og brædur hans og ætt fødur hans og þeir hafa barist vid Israels óvini og rekid þá frá þeim (Israelsmønnum) og útvegad þeim frelsi. 27. Og þeir skrifudu þetta á koparspjøld, og heingdu þau upp á stodir á Sions fjalli; og þetta er afskrift af skránni: „á átjánda degi í (mánudinum) Elul, árid 172, sem ad er þridja ár Símonar ædsta prests. 28. J Saramel á stórri samkundu prestanna, þjódarinnar og þjódhøfdíngjanna og landsins øldúnga, er oss kunngjørt: 29. med því optsinnis hefir verid ófridur í landinu, þá hefir Símon Mattatiasson, nidji Jaribs sona, og brædur hans, stofnad sjálfum sér í hættu, og veitt mótstødu óvinum þjódar sinnar, til þess ad helgidómur þeirra og løgmál gjæti haldist vid, og þeir hafa sæmt þjód sína miklum heidri; 30. og Jónatan hafdi safnad þjód þeirra, og gjørst ædsti prestur medal þeirra, og safnadist til lýds síns. 31. Og óvinir þeirra vildu vada inní land þeirra, tilad eyda landid, og leggja høndur á helgidóm þeirra; 32. þá tók Símon sig til, og bardist fyrir þjód sína, og kostadi miklu til þess af sínum eigin eigum, og vopnadi hermenn þjódar sinnar, og gaf þeim mála. 33. Og hann víggyrdti Júdeu borgir, og Betsúru, sem liggur vid Júdeu takmørk, hvar herlid óvinanna hafdi ádur verid, og setti þar setulid af Gydíngum. 34. Hann víggyrdti líka Joppe, sem liggur vid hafid, og Gasara, sem liggur vid Asdods takmørk, í hvørri óvinirnir høfdu ádur búid, og skipadi Gydíngum þar bústad og lagdi þeim til allt sem þeir þurftu til vidreisnar. 35. Og fólkid sá afreksverk Símonar, og heidurinn sem hann leitadist vid ad gjøra þjód sinni, og þeir gjørdu hann ad foríngja sínum og ædsta presti, af því hann hafdi unnid allt þetta og audsýndt ætíd þjód sinni, réttvísi og trúlyndi og leitast vid med øllu móti ad upphefja þjód sína. 36. A hans døgum lukkadist þad, søkum dugnadar hans, ad heidíngjarnir urdu reknir út úr landinu, og þeir sem voru í Davíds borg, í Jerúsalem, sem høfdu gjørt sjálfum sér vígi, er þeir fóru út úr, og saurgudu helgidóminn umhverfis, og unnu enni hreinu Guds dýrkun mikinn skada a). 37. Og hann lét Gydínga búa þar, og gjørdi þad (vígid) rambyggilegt til

V. 36. *a.* Adrir: og drápu marga á helgum stad.

verndar landinu og borginni, og hækkadi Jerúsalems gyrdíngar. 38. Og Demetríus Konúngur stadfesti hann í ædsta prests embættinu sökum þessa; 39. og tók hann í tölu vina sinna, og sæmdi hann mikilli tign; 40. því hann hafdi heyrt, ad Rómverjar kölludu Gydínga vini, bandamenn og brædur, og ad þeir hefdu tekid sendimönnum Símonar virduglega. 41. Og ad Gydíngum og prestunum gédjadist vel, ad Símon væri foríngi þeirra, og ædsti prestur æfínlega; þángad til áreidanlegur spámadur risi upp; 42. og ad hann væri hershöfdíngi yfir þeim, og annadist um helgidóminn, skipadi þeim verk sín, landstjórn, herstjórn og umsjón yfir festíngunum; 43. skyldi hann annast um helgidóminn, og allir hlýda honum, og allar tilskipanir í landinu skyldu vera skrifadar í hans nafni, og skyldi hann klædast skarlati og bera gull. 44. Skyldi eingum leift, leikum né lærdum, ad ógylda neitt af þessu, eda mæla móti því sem hann segdi, eda stefna fólks samkomu í landinu án hans vilja, eda klædast skarlati og bera gulllinda. 45. En hvör sem móti þessu breytti, eda raskadi nokkru af þessu, skyldi vera sekur. 46. Og allur lýdurinn lét sér líka ad gjöra þetta stadt og stödugt fyrir Símon, og breyta eptir þessum reglum. 47. Símon tók þessu og lét sér líka ad vera ædsti prestur, og hershöfdíngi, og þjódhöfdíngi Gydínganna og prestanna, og ráda öllu. 48. Og skyldi þessi skrá verda sett (grafin) á koparspjöld, er heingja skyldi upp í helgidóms gyrdíngunni á merkum stad; 49. en afskrift af þessu skyldi lögd verda í fjárhyrdsluna, svo ad Símon og synir hans gjætu haft hana.

## 15. Kapítuli.

Antíokus Demetríusarson kémst til ríkis, þraungvar Tryfoni, gjörir Símoni afarkosti.

1. Antíokus sonur Demetríusar Konúngs skrifadi sendibréf frá eyunum í hafinu til Símonar prests og þjódhöfdíngja Gydínga, og til allrar þjódarinnar. 2. Vóru bréfin skrád á þessa leid. „Antíokus Konúngur heilsar Símoni ædsta presti og þjódhöfdíngja, og Gydínga lýd! 3. Med því vondir menn hafa tekid undir sig ríki fedra vorra, og eg vil ná ríkinu aptur, til ad koma því í sama lag og ádur var, og hefi safnad fjölda lids, og út búid herskip; 4. og ætla ad fara yfir landid til ad finna þá, sem hafa gjört skada í landi vóru, og þá, sem eydilagt hafa margar borgir í ríkinu: 5. Þar fyrir stadfesti eg nú þér til handa öll þau léni, sem Konúngarnir ádundan mér hafa veitt þér, og allar þær gjafir (kvadir) sem þeir gáfu þér eptir. 6. Og eg géf þér leyfi til ad láta búa til eigin mynt handa þínu landi; 7. en Jerúsalem og helgidómurinn skal vera frí, og þú skalt mega halda öllum herbúnadi, sem þú hefir aflad, og víggyrdíngunum, sem þú hefir byggt, og rædur yfir. 8. Og allar Konúngs skyldur, og Konúngs tekjur hér eptir, séu þér eptirgéfnar, frá því nú er, og um alla ókomna tíd. 9. En er vér höfum nád ríki voru, skulum vér sæma þig, og þjód þína og musterid miklum heidri, svo ad dýrd ydar verdi augljós í öllum heimi.

10. Árid 174 fór Antíokus inní land fedra sinna, og allur herinn gékk honum á hönd, svo fáir urdu eptir hjá Tryfon. 11. Og Antíokus Konúngur ofsókti hann, svo hann flúdi, og komst til Dóru sem liggur vid hafid. 12. Því hann sá, ad ógjæfan var yfir hann dunin, þared herinn hafdi yfirgéfid hann. 13. Og Antíokus settist um Dóru, og med honum hundrad og tuttugu þúsundir strídsmanna, og átta þúsund riddara. 14. Hann settist um borgina og skipin styrktu til sjáfarmegin, þraungvadi hann borginni bædi af sjó og landi, og leid eingum ad fara út eda inn. 15. Nú kom

Númeníus, og þeir sem með honum vóru, frá Rómaborg, höfðu þeir bréf til Konúnganna, og landstjóranna, er skrifuð vóru á þessa leið: 16. „Lúsíus ræðismaður Rómverja, heilsar Tólómeusi Konúngi! 17. Sendiherrar Gyðínga komu til vor, vinir vorir og bandamenn, tilað endurnýja vináttu hina fornu, og liðsáttmálann, vóru þeir sendir af Símoni, æðsta presti, og Gyðínga lýð. 18. Færðu þeir (oss) gullskjöld, sem vegur þúsund mínur. 19. Þar fyrir hefir oss þókknast, að skrifa Konúngunum og landstjórunum, að þeir sýni þeim eingann ójöfnuð, né herji á þá eða borgir þeirra, eða land þeirra og að þeir hjálpi þeim ekki, sem herja á þá. 20. Því oss hefir þókknast að þyggja af þeim skjöldinn. 21. Hafi því einhvörjir illræðismenn flúið úr landi þeirra til yðar, þá skilið Símoni æðsta presti þeim, að hann straffi þá eptir þeirra lögum." 22. Hið sama skrifaði hann Demetríusi Konúngi, og Attalusi, Aríaratesi og Arsakesi, 23. og til allra hérada, bæði Sampsama og Spartverja, og til Deleyar og Myndus, og Sykíon og Karíu og Samus og Pamfylíu og Lykíu og Halikarnassus, og Ródus og Faselis og Kó og Side og Aradus og Gortynu, og Knidus og Kyprus og Kyrene. 24. En afskrift af bréfunum sendu þeir Símoni æðsta presti.

25. En Antiokus Konúngur sat um Dóru eptir sem áður, og dró að enn fleiri stríðsmenn, reisti hervyrki, og króaði Tryfon, svo hann komst hvörki inn né út. 26. Og Símon sendi honum tvö þúsund útvaldra stríðsmanna til liðveitslu, og silfur og gull og gnógt vopna. 27. En hann vildi ekki þyggja það, heldur brá hann öllu því, sem hann hafði samið við hann áður, og gjörðist honum fráhverfur; 28. og sendi til hans Atenabíus einn af vinum sínum, til að semja við hann, og skila þessu: Þér hafið lagt undir yður Joppe og Gasara og Jerúsalems vígi, (sem eru) borgir í ríki mínu. 29. Þér hafið eydt lönd þeirra, og unnið landinu stórtjón, og tekið yður vald yfir mörgum héröðum í mínu ríki. 30. Látið nú af hendi borgirnar sem þér hafið tekið, og skatta af héröðunum, sem þér hafið ráðið yfir fyrir utan Júdeu takmörk. 31. Eða greiðið, að öðrum kosti, fyrir þær fimm hundruð vættir silfurs, og fyrir skémdirnar, sem þér hafið unnið, fyrir skattana af borgunum, aðrar fimm hundruð vættir; annarskostar munum vér koma og herja á yður. 32. Atenobíus Konúngs vinur kom nú til Jerúsalem, og þegar hann sá skraut Símonar, og borðið með gullkérunum og silfurkérunum, og nægum áhöldum a), þá gékk yfir hann; og hann flutti honum orðsendíng Konúngsins. 33. Símon svaraði honum og sagði: hvörki höfum vér tekið annara land, né ásælst annara eign, heldur (höfum vér tekið) arf feðra vorra, sem óvinir vorir héldu um hríð með órétti. 34. En þegar oss gafst færi á, tókum vér aptur föðurleifð vora. 35. En hvað kröfu þinni um Joppe og Gasara viðvíkur, þá hafa þær unnið landslýð vorum stórtjón, fyrir þær viljum vér samt géfa hundrað vættir; Atenobíus svaraði honum eingu orði; 36. en fór burt reiður á Konúngs fund, og skýrði honum frá þessum ummælum, og frá skrauti Símonar, og öllu sem hann hafði sjeð, og varð Konúngur afar reiður. 37. En Tryfon steig á skip og flúði til Ortasíu. 38. Og Kóngurinn gjörði Kendebeus að herhöfðíngja yfir landinu við hafið, og fékk honum fótgaungu lið og riddara. 39. Og bauð honum að fara herför móti Júdeu, og skipaði honum að byggja Kedron, og víggyrða (borga) hliðin, og herja á lýðinn; en Kóngurinn fór eptir Tryfon. 40. Kendebeus kom til Jamníu, og fór að

---

V 32. *a.* Og nægum ah.ldum. Adr: og hans miklu hirð.

egna fólkið upp, og vaða inní Júdeu, og hertaka fólkið og deyða. 41. Hann bygði Kedron og setti þar riddara og fótgaungu lið, að þeir skyldu taka sig upp þaðan og fara útá þjóðbrautir Júdeu, einsog Kóngurinn hafði skipað.

## 16. Kapítuli.

Júdas og Jóhannes Símonar synir berjast við Kendebeus; Símon og synir hans Mattatías og Júdas vegnir.

1. Jóhannes fór nú frá Gasara og kunngjørði Símoni føður sínum hvað Kendebeus hafði aðhafst. 2. Þá kallaði Símon á tvo elstu sonu sína, Júdas og Jóhannes, og sagði við þá: eg, og brædur mínir og ætt føður míns høfum barist við Ísraels óvini, frá æskuskeiði, og allt til þessa dags, og það hefir auðnast fyrir vora hønd, að frelsa Ísrael optar enn einusinni. 3. En nú em eg orðinn aldraður, en þið eruð, fyrir Guðs náð, orðnir fullþroska að aldri; gángið nú í minn stað, og bróður míns, og takið ykkur til, og berjist fyrir þjóð vora, en hjálp af himnum veri með yður! 4. Síðan valdi hann úr landinu tuttugu þúsundir hermanna og riddara, fóru þeir móti Kendebeusi, og høfðu náttstað í Móðin. 5. En um morguninn tóku þeir sig upp og fóru á sléttlendið, og sjá! þá kom mikið fótgaungu lið móti þeim, og riddarar, en vatnsfall var miðt á milli þeirra.

6. Þar setti hann (Jóhannes) og lið hans herbúðir gégnt þeim; sá hann að fólkið var ragt að fara yfir um vatnsfallið, fór hann því fyrstur yfirum, en er stríðsmennirnir sáu til hans, fóru þeir yfirum á eptir honum. 7. Hann skipti liðinu, og lét riddarana vera milli fótgaungulíðsins, en riddaralið óvinanna var afar mikið. 8. Þeir blésu þá í ena helgu lúðra, lagði Kendebeus á flótta, og lið hans, og féllu margir af þeim særðir, en þeir sem afkomust flúðu inní vígið. 9. Þá var Júdas, bróðir Jóhannesar, særður, en Jóhannes rak flóttann, þángað til hann kom að Kedron er hann hafði byggt. 10. Og þeir flýðu í turnana sem vóru á Asdóðs økrum, en hann (Jóhannes) brendi borgina í eldi, og féllu af þeim við tvø þúsund manns, síðan fór hann aptur heim í Júdeu land með friði.

11. Tólómeus Abúbs son hafði verið settur høfuðsmaður yfir Jerikós vøllu, hann var auðugur af silfri og gulli, 12. því hann var teingdasonur æðsta prestsins. 13. Hann ofmetnaðist í hjarta, og vildi leggja landið undir sig, og bruggaði svik gégn Símoni og sonum hans, tilað drepa þá. 14. En Símon fór um borgirnar í landinu, og ól jafnan ønn fyrir þeim; kom hann til Jerikó, og Mattatías og Júdas synir hans árið 177 í ellefta mánuðinum, það er mánuðurinn Sabat. 15. Abúbs son tók á móti þeim í litla kastalann sem kallaður er Dók, er hann hafði byggt; vóru svik í tafli; hann héldt þeim stóra drykkju veitslu, en hafði falið þar (stríðs) menn. 16. Þegar Símon og synir hans vóru orðnir drukknir, reis Tólómeus upp og menn hans, tóku vopn sín, og óðu að Símoni inní drykkju stofuna, drápu hann og báða syni hans, og nokkra af þjónum hans. 17. Sýndi hann mikinn ódreingskap, og endurgaldt gott með illu. 18. Tólómeus skrifaði þetta, og sendi til kóngsins, bað hann um hjálpar lið, og að láta sig fá land þeirra og borgir. 19. Aðra menn sendi hann til Gasara, tilað drepa Jóhannes, og skrifaði þúsundshøfðíngjunum til, að þeir kjæmi til sín, skyldi hann géfa þeim silfur og gull og gjafir. 20. Og aðra menn sendi hann til að taka Jerúsalem og musteris fjallið. 21. Þá hljóp einhvør á undan til Gasara, og sagði Jóhannesi frá að faðir hans væri veginn og brædur hans; og hann hefir einnig sendt tilað drepa þig. 22. Þegar hann heyrði það, skélfdist hann mjøg; og hann lét handtaka mennina,

sem ætludu ad myrda hann, og drepa þá, því hann vissi, ad þeir sátu um líf hans.
23. Hin ønnur saga um Jóhannes, og orustur hans, og afreksverk sem hann vann, og víggyrdínga byggíngar hans, og athafnir, 24. sjá, þetta er skráð í árbókinni um hans ædstaprestsskap, frá því hann vard ædsti prestur eptir fødur sinn.

# Sídari Makkabea Bókin.

## 1. Kapítuli.

*Sendibréf frá Gydíngum í Palestínu, til Gydínga í Egyptalandi, um musteris vígslu hátídina.*

1. Vér Júdar í Jerúsalem og á Júdalandi, ydar brædur, heilsum vorum brædrum, Júdunum á Egyptalandi, (óskandi) allra heilla.
2. Gud veiti ydur gjædi og minnist síns sáttmála vid Abraham og Ísaak og vid Jakob, sína trúu þjóna. 3. Og hann gési ydur øllum eitt hjarta ad heidra sig, og gjøra sinn vilja af miklu (øllu) hjarta og viljugri sálu.
4. Og hann opni ydar hjørtu med sínu løgmáli og sínum bodordum og veiti frid (heill),
5. og heyri ydar bænir og sé ydur nádugur, og yfirgési ydur ei á ógjæfunnar tíd. 6. Og nú bidjum vér hér (þannig) fyrir ydur.

7. Undir ríkisstjórn Demetríus Konúngs á 169da ári, høfum vér Júdar til ydar skrifad í þreyngíngu og hættum, sem yfir oss komu þessi árin, sídan Jason og hans áhángendur féllu frá því heilaga landi og frá ríkinu, 8. og menn brendu borgarhlidid og úthelltu saklausu blódi. Þá beiddum vér Drottinn, og urdum bænheyrdir, og frambárum fórn og hveitimjøl og tendrudum ljósastjakana og løgdum upp (skodunar) braudin. 9. Og haldid nú helga laufskála hátídar dagana í mánudinum Kaselev!

10. Á 188da ári, óska þeir í Jerúsalem og í Júdeu, og þeir eldstu og Júdas, honum Aristobúlus, lærimeistara Tólómeus Konúngs, sem kominn er af ætt hinna smurdu presta, og Júdunum í Egyptalandi, heilla og hamíngju! 11. Frelsadir af Gudi úr mikilli hættu, þøkkum vér honum mikillega, vér sem høfum veitt mótstødu Konúngi (nokkrum). 12. Því hann hefir þá burtu rekid sem mótstødu gjørdu í þeirri helgu borg. 13. Því eptir ad herforínginn var farinn til Persalands med sinn her, sem sýndist ósigranlegur, var á þeim unnid í Naneu a) musteri, því ad Naneu prestar høfdu brøgd vid. 14. Því þá Antíokus kom og léts vilja giptast henni b), og hans vinir med honum, á þann stad, í þeim tilgángi, ad taka sjódinn, sem heimanmund, 15. og þá prestar Naneu løgdu hann fram, og hann (Antíokus) med fáum var geinginn í gángrúm þess helga stadar, læstu þeir musterinu, rétt í því Antíokus var inngeinginn, 16. luku upp leyni dyrum á fortjaldinu, køstudu steinum, og sundur mørdu høfdingjann; og hina (adra) britjudu þeir í stikki, og hjuggu af þeim høfudin, og fleygdu þeim út. 17. Á allann hátt sé vor Gud vegsamadur, sem framseldt hefir þá ógudlegu! 18. Þared vér nú í mánudinum Kaselev á 25ta degi, vil-

V. 13. *a.* Sumir ætla ad Nanea sé sama sem Diana. V. 14. *b.* Nefnil: Gydjunni.

kum halda helga musterisins hreinsun, høfum
vér álitid sæmandi ad segja ydur ad þér og
haldid helga hátíd vígslunnar og eldsins (sem
fannst) þá Nehemías bygdi musterid og altar=
id og frambar fórnina.

19. Þegar fedur vorir voru fluttir til Persa=
lands, tóku vorir gudræknu prestar heimuglega
eitthvad af eldi altarisins, og fólu í holu nokk=
urri vatnslausrar grifju, hvar þeir geimdu hann
svo, ad einginn vissi af þessum stad. 20. En
þegar mørg ár voru lidin, þá Gudi þóknadist,
var Nehemía sendur af Persa kóngi, og hann
gjørdi út nidja prestanna sem eldinn høfdu fal=
id, eptir honum. En þá þeir søgdu oss ad
þeir hefdu eingan eld fundid, heldur (adeins)
þikkt vatn, 21. skipadi hann þeim ad ausa þar
af og koma med. Þegar nú þad var þángad
fært sem hafa skyldi til fórnarinnar, baud Ne=
hemías prestunum, ad hella vatninu yfir vidinn
og þad sem á hann hafdi verid lagt. 22. Þá
þetta var gjørt og nokkur tími lidinn, og þá
sólin tók ad skína, sem ádur hafdi ei sjest, tendr=
adist mikill eldur, svo alla furdadi. 23. En
prestarnir voru á bæn, medan fórnin brann,
prestarnir og allir adrir, Jónatan birjadi, og
hinir tóku undir, og sømuleidis Nehemía. 24.
Og bænin hljódadi þannig:

Drottinn! Drottinn! Gud, Skapari allra
hluta, þú óttalegi, máttugi, réttláti og miskun=
sami, þú eini Konúngur og smurdi, 25. eini
gjafari, eini réttláti og alstjórnari og eilífi, þú
sem frelsar Ísrael frá øllu illu, þú sem hefir
útvalid og helgad fedurnar! 26. Þigg fórn=
ina fyrir allt þitt fólk Ísrael, vardveit þína
erfd og helga hana! 27. Saman safna vorum
tvístrudu! frelsadu þá sem þrælka medal þjód=
anna, lít nádarsamlega til þeirra sem einkis
eru metnir og alla stuggar vid, svo þjódirnar
sjái ad þú ert vor Gud. 28. Nefsa þeim
sem undirþrikkja oss og misþirma af ofmetn=
adi. 29. Gródurset þitt fólk á þínum heilaga
stad, eins og Móses sagdi.

30. En prestarnir súngu lofsaungva ad
auki. 31. Og sem fórnin var brunnin, lét
Nehemías hella því sem eptir var af vatninu á
stóra steina. 32. Sem þad var skéd, tendrad=
ist bál nokkurt; en sem ljósid af altarinu upp=
tendradist, eyddist þad. 33. En sem þetta
spurdist, og Persa Kóngur fékk ad heyra, ad
á þeim stad, hvar prestarnir, þeir burtfluttu,
fólu eldinn, hefdi vatn látid sig sjá, med
hvørju Nehemias og þeir sem med honum
voru, høfdu helgad fórnina: 34. fridadi Kon=
úngur (stadinn) og byggdi musteri, þá hann
hafdi ransakad málid. 35. Og þeim sem
Kóngurinn var nádugur, gaf hann mikla
peninga, er hann hafdi medtekid. 36. En
þeir Nehemias kølludu þetta Neftar, sem út=
leggst hreinsun, margir kalla þad samt Neftani.

## 2. Kapítuli.

Sama efni, og um søgu Jasons frá Kyrene.

1. En þad finnst í ritníngunum, ad Jere=
mías spámadur hafi bodid þeim herteknu, ad
taka af eldinum, eins og frá var sagt, 2. og
þegar spámadurinn baud þeim herteknu, í því
hann fékk þeim løgmálid, ad þeir skyldu ekki
gleyma Drottins bodordum, né láta sín hjørtu
afvegaleida, þegar þeir mundu sjá godabílætin
af silfri og gulli og skartid á þeim. 3. Og
talandi annad þesshátar, áminnti hann þá um
þad ad láta sér ekki gleymast løgmálid. 4. En
þad stód líka í ritinu, hvørsu ad spámadurinn,
eptir gudlegri opinberan, lét eptir sér bera
tjaldid og ørkina, og hvørsu hann gékk uppá
fjallid, þad sem Móses sté uppá, og sá þad=
an Guds erfdaland. 5. Þegar Jeremías var
nú þángad kominn, fann hann þar hellir, og
fór þángad med tjaldid og ørkina og reyk=
altarid, og hlód fyrir munnann. 6. Og

nokkrir af hans fylgdarmønnum komu þar ad, til ad setja á sig veginn, en gátu ekki fundid. 7. En sem Jeremías fékk það ad vita, ávítti hann þá og mælti: stadurinn verdur ókunnur, þángad til Gud saman heimtir sitt fólk og verdur því nádugur. 8. Og þá mun Drottinn láta hann finnast, og dýrd Drottins og skýid mun birtast, eins sem það sást á Mósis (døgum), og sem Salómon bad, ad stadurinn yrdi einkanlega heilagur. 9. Þess var og getid, hvørsu þessi, fullur vísdóms, frambar vígslufórnina, þá musterisbyggíngunni var lokid. 10. Eins og Móses líka bad til Drottins og eldur féll af himni og eyddi fórninni: svo bad og Salómon, og sá nidurfallni eldur eyddi brennifórninni. 11. Og Móses mælti: af því syndafórnin er ekki etin, er henni eydt. 12. Á sama hátt héldt Salómon helga þá átta daga. 13. Frá því sama er líka sagt í ritum og minnisbókum Nehemía, og hvørsu hann lagdi grundvøll til bókasafns og samansafnadi bókum kónganna og spámannanna og Davíds, og bréfum kónganna vidvíkjandi musterisgáfunum. 14. Sømuleidis hefir og Júdas øllum (ritum) safnad, sem sakir þess háda strírs voru tvístrud, og þau eru oss vid hønd. 15. Ef þér nú þurfid þessara vid, svo sendid menn sem sæki þau.

16. Þared vér nú viljum halda helga hreinsun (musterisins) svo skrifum vér ydur. Þér gjørid nú vel ef þér haldid dagana helga. 17. En Gud, sem hefir frelsad allt sitt fólk, og veitt alla eign og kóngsríki og prestskap og helgidóm, 18. eins og hann hét í løgmálinu: vér høfum þá von til Guds, ad hann skjótt miskuni oss og safni oss saman úr øllum hérødum undir himninum í það heilaga land, því hann hefir frelsad oss úr mikilli ógjæfu og hreinsad musterid.

19. En søgu Júda Makkabeans og hans brædra og hreinsun þess mikla musteris og vígslu altarisins, 20. sømuleidis strídin vid Antíokus gøfga (Epifanes) og hans son Evpator, 21. og þá frá himnum berssýnilega sendu lidsemd, þeim til góds sem med edallyndi børdust fyrir Júdadóminn, svoad fáir ad tølu eyddu allt landid, og hroktu burt þann útlenda her, 22. og settu aptur í lag það, í øllum heimi fræga musteri, og frelsudu borgina, og vidréttu løgmálid sem menn ætludu ad aftaka, af því Gud med allri gódsemi var þeim nádugur, 23. það, sem Jason frá Kyrene hefir sagt frá í fim bókum, það viljum vér reyna til ad samandraga í eina. 24. Því nær vér hugleidum þær mørgu tølur og erfidleikann, sakir þess mikla efnis, sem þeim mætir, er søgur vilja segja, 25. høfum vér viljad vinna þeim, sem søgur lesa, til ánægju, og þeim sem þær ástunda ad muna, til léttirs, og øllum sem bók þessi kémur í hønd, til nytsemi.

26. Sú fyrirhøfn er vér tøkumst á hendur, ad gjøra þetta ágrip, er ekki lítil, heldur svita og svefnleysis starf, 27. eins og þeim verdur það ekki létt sem géstabod tilreidir, og ødrum til gagns ætlar; en samt viljum vér gjarnan bera mæduna, sakir þeirrar þakkar sem vér búumst vid af mørgum. 28. Nákvæmnina í hvørju einstøku, høfum vér yfirlátid høfundinum, en gjørum oss annt um ad fylgja þeim ádur dregnu ágrips strikum. 29. Því eins og sá sem byggir nýtt hús, verdur ad hugsa um alla byggínguna, en hinn sem tekst á hendur ad prýda hana og mála, hann á ad eins ad grennslast eptir því sem er hentugt til prýdi, svo er því háttad hvad mig áhrærir. 30. Høfundi søgunnar ber ad rekja hana, gjøra skil fyrir øllu, og grennslast vandlega eptir øllu einstøku. 31. En þeim verdur ad leifast sem ummyndar verkid, ad stitta ordfærid og sleppa því erfidasta úr søgunni. 32. Og nú viljum vér birja frásøguna, eptir ad vér høfum sett

þenna litla inngáng; því þad er fávíslegt ad vera margordur í søgunnar formála, en stitta søguna sjálfa.

## 3. Kapítuli.

Tilraun gjørd ad ræna musterid.

1. Þá menn bjuggu í þeirri heiløgu borg í øllum fridi, og løgmálid var vandlega haldid, sakir gudrækni og réttvísi (eiginl: vondskuhaturs) høfudprestsins Onía, 2. skédi þad, ad sjálfir Konúngarnir heidrudu þennann stad, og gjørdu musterinu sóma med bestu gáfum, 3. svo ad jafnvel Selevkus, Kóngur í Asíu, gaf af eigin tekjum allann kostnad sem þurfti til fórnfæringanna. 4. En Símon nokkur af Benjamíns ættkvísl, sá tilsetti forstødumadur musterisins, vard sundurþikkur vid høfudprestinn, út af því ránglæti sem vidgékkst í stadnum. 5. En sem hann gat ei feingid yfirhønd yfir Onía, fór hann til Apollonius Trasevisonar, sem var um sama leiti høfudsmadur í nedra Sýrlandi og Føníkíu, 6. og lét hann vita ad féhirdslan í Jerúsalem hefdi ósegjanlegann aud ad geyma, svo ad peníngarnir væru óteljandi og þirfti ei (svo mikid) til fórna kostnadarins, en þad sé møgulegt ad allt þvílíkt komist í Kóngs vald. 7. En Apollonius lætur Konúng vita, þá hann hittir hann, af þeim peníngum, sem honum hafdi verid sagt frá; en hann valdi Helíodórus sem var rentumeistari og sendi hann med bréf til ad sækja þá nefndu penínga. 8. Og Helíodórus fór strax þessa ferd, og bar fyrir, ad hann vildi ferdast um stadina í nedra Sýrlandi og Føníkíu, en raunar fór hann til ad leysa af hendi Kóngs erindid.

9. En sem hann var kominn til Jerúsalem, og vinsamlega hafdi verid vid honum tekid af høfudpresti stadarins, lét hann í ljósi þann gjørda uppljóstur og sagdi erindi sitt, og spurdi hvørt satt væri affagt. 10. En høfudprestinn lét hann vita, ad þetta væri geymslufé, ekkjum og munadarlausum (tilheyrandi), 11. ad nokkud ætti líka Hyrkanus Tobíason, mjøg merkilegur madur, og ekki væri svo, sem sá gudlausi Símon hefdi frá sagt, og þad heila sé 4 hundrud vættir (Centner) silfurs og 2 hundrud vættir gulls; 12. en þad sé ógjørníngur ad þeir verdi rændir sínu, sem trúad hafi fyrir því heilagleika stadarins og æruverdugleika og fridhelgi, þess, í øllum heimi heidrada, musteris. 13: En Helíodórus sagdi, ad søkum þess konúnglega bodords sem hann hafdi, hlytu þessir peníngar ad komast í Konúngs fjárhirdslu. 14. Hann tiltók nú dag og gékk inn til ad skoda þetta fé og rádstafa því. En mikil skélfíng var yfir allri borginni. 15. Og prestarnir køstudu sér í sínum skrúda nidur fyrir altarid, og kølludu til himins á þann, sem gésid hefdi løgin um geymslufé, ad hann skyldi vardveita þeim óskaddad, þad sem þeir hefdu hér lagt til geymslu. 16. En hvør sem horfdi á svip høfudprestsins, skarst í hjarta; því hans útlit og umbreitti andlitslitur gaf til kynna ángist sálarinnar; 17. því yfir manninn var komin hrædsla og skélfíng, hvar af þeim, sem hann sáu, var bersýnileg, sú raun, er hans hjarta þoldi. 18. En fólkid støkk út úr húsunum hópum saman til almennilegrar bænagjørdar, þar ed (vid var búist ad) musterid mundi komast í fyrirlitníngu. 19. Vafdar sekk um brjóstin fylltu konurnar strætin, og þær innilokudu meyar hlupu sumar til borgarhlidanna, og sumar uppá múrinn, og nokkrar litu út um gluggana, 20. og allar réttu hendur til himins og bádust fyrir. 21. Þad var aumkvunarlegt ad sjá fólk framfallid hvørn hjá ødrum, og eptirbid høfudprestsins, sem hafdi mikid ad bera. 22. Þeir ákølludu nú þann Almáttuga Gud ad hann

varðveita vildi óskaddað og óhullt, þeim sem trúað höfðu fyrir (sínu), það er þeir höfðu trúað fyrir. 23. En Helíodórus framkvæmdi sinn ásetníng. 24. Samt nú þegar er hann stóð þar við fjárhirðsluna með sínum lífvöktur=um, sendi Drottinn feðranna, yfirherra alls veldis, mikla opinberan, svo að allir sem dirfst höfðu að samansafnast þar, óttuðust Guðs mátt, og skélkuðust og mistu hug. 25. Því þeim birtist hestur með óttalegum ridd=ara, prýddur fegurstu reiðtýgum, sem með á=kéfð ruddist fram, og sló Helíodórus með fram=hófunum. En riddarinn sást í gullbrinju. 26. Og enn birtust honum tveir aðrir úngir menn, afbragðs sterkir, mjøg fríðir og ágjætlega búnir: þeir geingu að til beggja hliða og børðu hann óaflátanlega og gáfu honum mørg høgg. 27. En hann féll snøgglega til jarðar, innvafinn í mikið myrkur, og þeir hrifu hann burt, og løgðu hann á børur, 28. og báru burt, þann sem rétt áður með mikilli fylgd og øllum sínum hirðmønnum var inngeinginn í þá áður nefndu fjárhirðslu, í því ástandi, að hann gat ei bjargað sjálfum sér, og kønnuðust berlega við Guðs veldi. 29. Og hann lá þar mállaus fyrir guðlega framkvæmd, sviptur allri von og hjálp; 30. og það skømmu áður með ótta og skélfíngu fyllta musteri, uppfyllt=ist nú fyrir opinberan þess alvalda Drottins, føgnuði og glaðværð.

31. En nokkrir af vinum Helíodórs beiddu skjótlega Onías að ákalla hinn æðsta og géfa líf þeim sem algjørlega væri kominn í andar slitrin. 32. Þareð nú høfuðpresturinn hugs=aði, að Kóngur mundi fá grun um, að Júðar hefðu beitt brøgðum við Helíodórus, svo frambar hann fórn fyrir mannsins apturbata. 33. Og sem høfuðpresturinn frambar forlík=unarfórnina, birtust enir sømu úngu menn Heli=odórus, í sømu klæðum, geingu að og mæltu: þú átt miklar þakkir að segja høfuðprestinum Onías, því, sakir hans hefir Drottinn géfið þér lífið. 34. En fyrst að þú ert af honum hirtur, þá kunngjør þú øllum Guðs mikla veldi. Og að svo mæltu hvurfu þeir.

35. En eptir að Helíodórus hafði fært Drottni fórn, og gjørt þeim mikið heit, sem hafði bjargað hans lífi, og kvadt Onías vin=samlega, fór hann aptur til Konúngs. 36. Og hann sagði hvørjum manni frá því mikla verki Guðs, er hann hafði séð með augunum. 37. En þá Konúngur spurði Helíodórus, hvør hæfi=legur kynni vera til að sendast til Jerúsalem, mælti hann: 38. Hafir þú óvin eða mótstøðu=mann þinnar ríkisstjórnar, svo send þú hann þángað, og þú munt fá hann hýddan aptur, fái hann annarskostar að halda lífi, þareð Guðs veldi er sannarlega framkvæmdarsamt á þeim stað. 39. Því sá sjálfur, sem hefir himneskann bústað, vaktar og verndar þennan stað, og hann deyðir með høggum þá sem þángað koma til að vinna tjón. 40. Svona fór það, viðvíkjandi Helíodórus og varðveitslu fjárhirðslunnar.

## 4. Kapítuli.

*Jason og Menelaus koma illu til leiðar.*

1. En sá áður nefndi Símon, sem sagt hafði til sjóðsins og svikið sitt føðurland, rægði Onías, eins og hann hefði sjálfur barið Helíodórus, og verið frumkvøðull illvirkisins. 2. Og hann dirfðist að nefna þennan borgar=innar velgjørara, sinna landsmanna fulltíngis mann, sem vandlætti fyrir løgmálið, mótstøðu=mann ríkisstjórnarinnar. 3. Þegar nú fjand=skapurinn var orðinn svo mikill, að vinir Sí=mons jafnvel myrðtu menn, 4. þá hugleiddi Onías hvørsu hættulegt ósamþikkið væri, og æðigángur Appollonius, sem ól á vondsku Símons, 5. sá sem var høfuðsmaður í neðra

Sýrlandi og Føníkíu, og fór til Konúngs, ekki til þess ad ákjæra landa sína, heldur hafandi í huga sameiginlegt og sérdeilislegt gagn alls fólksins. 6. Því hann sá þad fyrir, ad ef Konúngur skjærist ekki hér í, mundi landid aldrei géta feingid frid, og Símon aldrei láta af sinni fásinnu.

7. En er Selevkus var dáinn, og Antíókus auknefndur hinn gøfgi, kominn til ríkis, leitadist Jason vid, bródir Onías, ad ná ædsta prests embættinu, 8. því eitt sinn er hann átti tal vid Konúng, hét hann honum 360 vættum silfurs, og af annari inntekt, 80 vættum. 9. Auk þessa hét hann enn nú ødrum 150 vættum, ef sér yrdi leyft af Konúngi ad reisa (Gymnasíum) leikhús og dreingja skóla og veita Antíókíu mønnum borgar rétt, í Jerúsalem. 10. Þegar Konúngur hafdi heitid þessu og hinn var búinn ad fá tignina, vandi hann sveitúnga sína skjótt á Gríska sidi. 11. Og Kónganna mannkjærlegu løggjafir, sem Jóhannes, fadir Evpolemus, hafdi útvegad, sá sem fór sendiførina til Rómverja uppá vinskap og strídssamband, þær aftók hann, og ónýtti þad løglega stjórnarfórn, og innleiddi nýa sidi, løgum gagnstæda. 12. Því gjarnsamlega bygdi hann leikhús fyrir nedan kastalann, og lét þá gøfugustu æskumenn brúka hatt (á høfdi).

13. Þannig feingu Grískir sidir yfirhønd og menn hneigdust til háttsemi útlendra, sakir Jasons gudlausu og frekjufullu fásinnu, er ædsta presti var ósæmileg. 14. Svo prestarnir hirdtu ei framar um ad þjóna altarinu, heldur forsmádu musterid og gleymdu fórnunum, og hlupu til ad vera vid þan óløglegu skodunar spil í leikhúsinu, þegar ad hnøtturinn a) kalladi þá. 15. Og møttu einkis sæmd fedranna, en gjørdu þess meira af enni Grísku frægd. 16. Af þessu komust þeir í ærid miklar krøggur, og einmidt þeir, eptir hvørra sidum þeir sældu, og hvørjum þeir vildu verda líkir, þeir hinir sømu urdu þeirra fjandmenn og hegnendur; 17. því ad þad er ekki hégómi ad forsmá gudleg løg, heldur sýnir þad sig seinna.

18. En er kappleikar, sem tídkudust í Týrus hvørt fimta ár, skyldu þar haldast, í Kóngsins nærveru, 19. gjørdi sá vondi Jason menn frá Jerúsalem, sem voru úr Antíokíu, til ad flytja þángad 3 hundrud mørk silfurs, í fórn handa Herkúles; samt beiddu þeir ekki um, sem med þetta fóru, ad þad yrdi brúkad til fórnar, því þad sómdi ekki, heldur ad þad tækist til annarar brúkunar. 20. Hann sendi (brúkadi) þá þetta, vegna hans sem sendi, til fórnar handa Herkúles, en vegna hinna sem med þad komu, til herskipa gjørdar.

21. En sem Apolloníus, Menesflevsson, var sendur til Egyptalands, sakir þess ad Tólómeus Filometor tók þar þá vid ríki, vard Antíokus þess áskinja, ad hann var ordin ótrúr hans efnum, og hugsadi um þad ad sér yrdi óhult, hvørs vegna hann fór til Joppe, og kom til Jerúsalem. 22. Dýrdlega var vid honum tekid af Jason og borginni, og hann kom inn (í borgina) med blisum og fagnadarópi; sídan fór hann herfør til Føníkíu.

23. Ad þremur árum lidnum sendi Jason Menelaus, bródur Símons, sem fyrr er gétid, til ad færa honum penínga, og til ad minna hann á einhvør naudsynja málefni. 24. Þessi kom sér í mjúkinn hjá Konúnginum, med því ad vegsama hans veldi, og nádi svo því ædsta prests embætti, því hann baud 3 hundrud vættir silfurs meir enn Jason (fyrir þad). 25. Kom svo, eptir ad hann hafdi feingid konúnglegt bodord, aptur; en hann hafdi einga, ædsta presti verduga, kosti, heldur því meir af ofsa grimdarfulls tíranna og villudýrs heipt.

V. 14. a. Hnattkast hefir verid merki til leiksins byrjunar.

26. Þannig var Jason, sem hafdi bolad út bródur sinn, steypt af ødrum, og hann var sem útlagi rekinn burt í Ammonítaland. 27. Menelaus fékk nú ad sønnu tignina; en þá peninga, sem hann hafdi lofad Kónginum, galdt hann ekki, þó ad Sostratus, høfudsmadur kastalans, krefdi hann þeirra. 28. Því þessi átti ad kalla saman tekjurnar; hvørs vegna Kóngur stefndi bádum fyrir sig. 29. Menelaus lét bródur sinn Lysimakus takast á hendur ædsta prests embættid fyrir sig, en Sostratus fékk fyrir sig Krates høfudsmann Kypriskra.

30. Medan þessu fór fram, vildi þad til ad þeir í Tarsus og Mallus gjørdu uppreisn, sakir þess þeir høfdu verid géfnir hjákonu Kóngsins, sem hét Antiokis. 31. Kóngur brá nú skjótt vid ad jafna þetta mál, og lét eptir vera sem høfudsmann einn af þeim ædstu høfdíngjum, Andronikus (ad nafni). 32. Þá hugdi Menelaus ad hann hefdi feingid hentugt tækifæri, og hnupladi nokkrum gullgripum musterisins, sem hann gaf Andronikus; en nokkra seldi hann í Týrus og kríngumliggjandi stadi. 33. Þetta spurdi Onías med vissu og kjærdi þad, því hann var flúinn í gridastad til Dafne, sem liggur hjá Antiokiu. 34. Þessvegna fékk Menelaus heimuglega Androníkus í tal, og krafdist af honum ad handtaka a) Onías. Hann kom þá til Onías, og þá þessi var med svikum yfirtaladur, gaf hann honum med eidi sína hønd, og þó hann væri grunadur, fékk hann svo talid um fyrir honum, ad hann fór úr sínum gridastad b), sem hann strax lokadi, og bar einga bligdun fyrir því réttvíslega. 35. Sakir þess reiddust, ei ad eins Gydíngar, heldur margir medal annara þjóda, og undu illa því rángláta mordi þessa manns. 36. Og þá Kóngurinn kom til baka úr Kilikíu hérudum, søgdu Gydíngar í borginni honum frá, og líka létu Grikkjar í ljósi ad þeir tækju upp þikkjuna med þeim fyrir þad, ad Onías hefdi verid myrdtur móti øllum rétti. 37. Antiokus vard nú hriggur af hjarta, snérist til medaumkunar og úthellti tárum, sakir hygginda þess andada og miklu sidsemi, 38. og logandi af brædi lét hann ódar fletta purpuranum af Androníkus, og rífa af honum klædin, og leida svo um allann stadinn, og drepa mordíngjann á þeim sama stad, hvar (á hvørjum) hann hafdi haft í frammi sitt gudleysi vid Onías, og þannig galdt Drottinn honum maklega hegníngu.

39. Þegar enn framar héradauki margt musteris rán vidgékkst í stadnum af hendi Lysimakus, med samþykki Menelaus, og þetta barst út, gjørdi fólkid samtøk móti Lysimakus, þegar búid var ad koma undan mørgum dýrgripum úr gulli. 40. Þegar fólkid gjørdi nú uppreisn og fylltist brædi, lét Lysimakus 3 þúsund manns vopnast og beitti ránglátu ofbeldi (handaløgmáli), en fyrir flokknum var Týrannus nokkur, madur aldradur, en eingu betri enn hinn. 41. En sem fólkid sá upphaf þessa ofbeldis af Lysimaks hendi, gripu sumir steina, adrir digra staura, og nokkrir tóku duptid sem þar lá, køstudu øllu þessu hvørju med ødru á Lysimaks menn. 42. Med þessu særdu þeir marga af þeim, og marga feldu þeir, og alla hrøktu þeir á flótta, en musterisræníngjann sjálfann drápu þeir hjá féhirdslunni.

43. En um þetta var ransókn haldin gégn Menelaus. 44. Þegar kóngurinn kom til Týrus, frambáru þrír menn, sendir af øldúngunum, ákjæru móti honum. 45. Þegar Menelaus var nú þegar ordinn sannur ad sok, lofar hann Tólómeus syni Dorymens, miklum peníngum til þess ad sefa kónginn. 46. Þá tók Tólómeus

V. 34. *a.* Adr: ad drepa. *b.* Gridastadnum líklega. Adrir leggja út eptir ødrum lestri: hvørn hann þá strax drap.

kónginn med sér inní forbyrgi a) nokkud, sem vildi hann láta kóng kjæla sig þar, og snéri sinni hans þar. 47. Og svo fríkénndi hann Menelaus, fyrir ákjærunni, hann sem var þó sekur í allri vondsku, en dæmdi til dauda þá veslíngs menn, sem hefdu verid dæmdir síknsaka þó þeir hefdu átt ad færa mál sitt fyrir Skýtum b). 48. Strax urdu þeir þannig ad þola rángláta hegníngu, sem tekid höfdu málstad borgarinnar og fólksíns og þeirra helgu áhalda. 49. Sakir þess gáfu líka Tyríumenn hinum sömu allan kostnadinn til vidhafnar mikillar útfarar og tóku upp þikkjuna þeirra vegna, sem maklegt var. 50. En Menelaus sat í tigninni og átti það ad þakka ágirnd maktarmannanna, og vard hann æ verri og verri, og kom ætíd fram sem mótstödumadur sinna medborgara.

## 5. Kapítuli.

Antíokus ædir í Jerúsalem.

1. Um þetta leiti fór Antíokus í annad sinn herför til Egyptalands. 2. Þá bar þad vid, ad í allri borginni sáust í 40 daga riddarar, sem ridu í loptinu, í gullofnum kápum, vopnadir lensum, hópum saman, 3. og riddaralid niduskipad í fylkíngar, sem rendu hvör á móti annari og hlupust á, (menn sáu) skildina blika, fjölda spjótanna, ad sverdum var brugdid, ad skotvopnum var skotid, og ad skein á þau gullbúnu hertýgi og margslags brynjur. 4. Því bádu allir ad þessi sjón mætti boda eitthvad gott. 5. En er ósönn tídindi bárust, ad Antíokus væri dáinn, tók Jason sér ekki færri enn þúsund menn, og gjördi sviplega árás á borgina. Þá þeir nú voru komnir uppá múrana, og stadurinn loks var tekinn, flúdi Menelaus í kastalann. 6. En Jason drap sína eigin medborgara miskunarlaust, og lét sér ekki til hugar koma, ad heppni í strídi móti medborgurum er hin mesta óheppni; en hann sem ætladi, ad hann hrósadi sigri yfir óvinum, en ekki landsmönnum (sveitúngum), 7. fékk ekki ædsta vald, heldur uppskar svívirdu ávöxt síns fyrirtækis, og sem útlagi fór hann aptur í Ammoníta land. 8. Nú hittu hann afdrif hans illu breitni, því klagadur c) fyrir Aretas, kóngi Arabiskra, og flýandi úr borg í borg, og ofsóktur af öllum og hatadur, sem sá, er fráhverfur var ordinn lögmálinu, og sem öllum stód stuggur af, sem bödli födurlandsíns og sinna landsmanna, var hann hrakinn til Egyptalands. 9. Hann sem hafdi rekid svo marga úr landi, dó sjálfur í útlegd, eptir ad hann var kominn til Lakedemiskra, til ad leita hjá þeim skjóls, vegna skildugleika. 10. Og hann, sem mörgum hafdi snarad út ójördudum, var af eingum harmadur, og fékk hvörki nokkra útför né legstad hjá fedrum sínum.

11. En er kóngurinn spurdi þad sem skéd var, hélt hann ad Júdea mundi gánga undan sér: því lagdi hann af stad úr Egyptalandi med villudýrs ædi, og tók borgina med herskildi. 12. Og hann baud sínum strídsmönnum ad drepa nidur í strá alla sem þeir hittu miskunarlaust, og líka þá sem flúid hefdu inn í húsin. 13. Þá voru deyddir úngir og gamlir; menn og konur og börn voru myrdt, meyum og brjóstmylkíngum var slátrad. 14. Á þremur dögum var fyrirfarid 80 þúsundum, 40 þúsundir fórust í orustunni d), og ekki voru færri seldir, enn þeir sem slátrad var. 15. Og ekki ánægdur med þetta dirfdist hann ad brjótast inní heimsins helgasta musteri, en Menelaus vísadi honum leid, þessi lögmálsíns og födurlandsíns svikari. 16. Og med vanhelgri hendi tók hann þau helgu áhöld og handlék og seldi af hendi þær gáfur sem adrir kóngar höfdu géfid stadn=

V. 46. *a.* Eiginl: gángrúm med þaki yfir, sem hvíldi á stólpum. V. 47. *b.* Sama sem viltum þjódum. V. 8. *c.* Innilokadur hjá Aret. V. 14. *d.* (Eiginl: í handa beitinni).

um til vegs og heidurs. 17. Og Antíokus metnadist í sínu sinni og hugleiddi ekki, ad Drottinn var ordinn reidur borginni um sinn, sakir synda þeirra sem þar bjuggu, hvørsvegna og auga var af henni slept a). 18. Hefdi þad ei verid, ad borgin hefdi verid svo akaflega syndug, mundi þessum eins og Helíodórus, sem var sendur af Selevkus kóngi til ad skoda fjársjódunu, strax hafa verid refsad og aptrad frá sinni ofdirfsku. 19. En ekki hafdi Drottinn sakir stadarins útvalid fólkid, heldur stadinn, søkum fólksins. 20. Eins og þá sadurinn tók hlutdeild í slisum fólksins, svo naut hann líka seinna (med fólkinu) Drottins velgjørnínga; Og þá hann nú var, søkum reidi hins almáttuga, yfirgéfinn, var hann aptur uppreistur med allri sæmd, þegar sá mikli yfirherra var fridstilltur.

21. Eptir ad Antíokus hafdi nú tekid úr musterinu þúsund og átta hundrud (talenta) vættir (silfurs) fór hann med flýtir til Antiokíu, og hugsadi í sínum ofmetnadi ad hann gjæti látid sigla á þurrlendi og gánga um hafid, svo drambsamt var hans hjarta ordid. 22. Hann lét líka vera (þar) eptir umsjónarmenn, til ad plága fólkid: í Jerúsalem Filippus ad uppruna úr Frygíu, en ad háttsemi argari enn sá var, sem hafdi sett hann til valda. 23. Og í Garísem Andronikus, og þaradauki Menelaus, sem beitti ofmetnadi enn framar heldurenn adrir, vid borgarana, og hatadist vid þá borgara sem voru Gydíngar. 24. Líka sendi hann frumkvødul ens illa Appolloníus, 22 þúsundir hermanna og baud honum drepa alla fulltída menn en selja konur og únglínga. 25. Þegar þessi kom til Jerúsalem létst hann vera fridsamlegur, og héldt sér í taumi til þess helga hvíldardags; og er hann sá ad Gydíngar héldu þá heilagt, baud hann sínum mønnum ad vopnast; 26. og lét leggja í gégn alla sem útgeingu til Gudsþjónustunnar og þared hann brautst inn í stadinn med vopnum, lagdi hann vid velli mikinn fjølda. 27. En Júdas, Makkabeus, sjálfur hinn tíundi, flúdi í óbygdina og lifdi med sínum mønnum á dýra hátt, og nærdust alltaf á jurtum, til þess ad eiga einga hlutdeild í saurguninni.

## 6. Kapítuli.

*Hvørsu Gydíngar voru píndir til ad gánga af trúnni.*

1. Ekki laungu þar eptir sendi Kóngurinn gamlann mann b) Ateniskann, sem skyldi neyda Gydínga til ad sleppa løgum fedranna og lifa ekki framar eptir Guds løgmáli; 2. Líka til þess ad saurga musterid í Jerúsalem, og nefna þad eptir c) þeim Olympiska Júpíter, og þad í Garísím (því þeir sem þar áttu heima, voru adkomnir) eptir Júpíter gésta verndara. 3. En þúng og hørd var fólkinu árás þessarar plágu. 4. Því musterid var af heidíngjum fyllt svalli og óhófi, þeir ydkudu þar lauslæti med skjækum og løgdust med konum í þeim helga forgardi, og þaradauki báru þeir þar inn, þad sem ei hæfdi. 5. En altarid var fyllt med óleyfilegum (hlutum) sem bannad var í løgmálinu. 6. Þá gátu menn eingann hvíldardag haldid, eingar hátídir fedranna mátti halda helgar, og einginn mátti kannast vid ad hann væri Gydíngur. 7. Þeim var naudgad inn ad gánga med hardri hendi á Kóngsins burdardag í hvørjum mánudi til fórnarveitslu. Og þegar Bakkus d) hátídin var haldin, vóru Gydíngar neyddir til ad gánga med kransa af vínvidarlaufum, Bakkusi til heidurs.

8. Aliktun sú gékk og út til þeirra Grisku

V. 17. *a.* Honum leitst ad refsa borginni. V. 1. *b.* Adr: Ateneus. V. 2. *c.* Þeim á Olympus búandi. V. 7. *d.* Víngud heidingjanna.

borga í nágrenninu eptir tillögum Tólómeus, ad þær skyldu fara hinu sama fram vid Gydínga, og neyda þá til ad vera í fórnarveitslunum: 9. og ad þeir skyldu drepa hvörn þann sem ei kysi heldur ad gánga yfir í Grískann sid. Mátti þá sjá mikla hörmúng yfir menn gánga. 10. Tvær konur voru leiddar fram sem höfdu umskorid syni sína. Þeir bundu þessara börn á þeirra brjóst, leiddu þær berskjnilega um borgina, og hrindtu þeim fram af múrnum. 11. Nokkrir hlupu í nálæga hellra, til þess leynilega ad halda helgann sjöunda daginn; það var sagt Filippus og þeir voru brendir, því ekki þordu þeir ad verja sig, sakir dýrdar þess helga dags.

12. Eg minni nú alla á það sem sjá þessa bók, ad þeir missi ei hug, sökum þessara hörmúnga, heldur hugsi, ad refsíngin skyldi þéna, ekki til ófara, heldur til aga voru fólki. 13. Og ad þeir gudlausu verda ei leingi látnir óhegndir, heldur verda skjótt fyrir refsíngu, það er vottur mikillrar gjædsku.

14. Því ekki hefir Drottinn ætlad sér ad brúka vid oss sama lánglundargéd og vid adrar þjódir, þángad til þær hafa fyllt mælir syndanna, 15. svo hann ekki ad lyktum refsi oss, þegar vorar syndir eru komnar á hædstu tröppu. 16. Því víkur hans miskun aldrei frá oss; og þó hann hirti oss med ógjæfunni, yfirgéfur hann ekki sitt fólk. 17. Þetta sé oss sagt til eptirþánka, og ad þessu fáu frammæltu, verdum vér ad hverfa aptur til sögunnar.

18. Eleasar, einn af þeim helstu skriftlærdu, komin til áranna, og mjög frídur madur, var neyddur til ad eta svínakjöt, og sperrtu þeir upp munninn á honum. 19. En hann kaus heldur daudann med frægd, enn lífid med skömm, gékk til pintínganna viljuglega, og lét aptur út úr sér (svínakjötid). 20. Eins og þeim sæmdi sem einlægir voru í því ad varast það af elsku til lífsins, sem ekki er leyfilegt ad smakka. 21. En þeir sem settir voru (til ad annast) þær óloglegu blótveislur, tóku manninn, vegna gamals kunníngsskapar, afsídis, og bádu hann innilega, ad hann skyldi láta færa sér kjöt og eta það, sem hann hefdi sér sjálfur tilreidt, og láta sem hann æti það fórnarkjöt, er Kóngur hefdi bodid (ad eta), 22. svo hann med því móti kjæmist hjá lífláti, og sökum fornrar vináttu vid þá, yrdi nádadur.

23. En hann sýndi göfuglyndann þeinkíngarhátt, verdugan sínum aldri og elli og æruverdu hærum, og fallegu breitni frá barnsaldri, einkum sakir Guds heilaga lögmáls, og þvertók það og sagdi, ad menn skyldu sem skjótast lífláta sig. 24. „Því hræsni er ósæmileg mínum aldri, sem ollir því, ad margir úngir menn máské leidast á þá ætlan, ad sá nírædi Eleasar hafi tekid heidni, 25. sömuleidis afvegaleidist af mér sökum míns stutta spannarlánga lífs, og eg baki mínum aldri skömm og hádúng. 26. Því jafnvel þó eg komist nú hjá manna hegníngu, gét eg samt ei, hvörki lífs né lidinn, umflúid hendur þess almáttuga. 27. Því vil eg, med því ad láta lífid med karlmennsku, sýna mig verdugann mínum aldri, 28. og eptirláta þeim ýngri göfuglegt dæmi, ad deya fyrir þau æruverdu og heilögu lög fúslega og med edallyndi". Ad svo mæltu gékk hann ad pintínga tólunum. 29. En þeir sem höfdu tekid hann afsídis, umbreittu nú þeim ádur sýnda velvilja í illvilja, þared hans áminnsta tal, eins og þeim þótti, væri heimska. 30. Af því hann vildi nú deya undir höggum, andvarpadi hann og mælti: Drottni er kunnugt, þeim, sem hefir þá heilögu þekkíngu, ad þá eg verd laminn, mun líkami minn kénna til undan höggunum, og ad eg gat komist hjá lífláti, en ad eg þoli

slíkt á minni sálu, sakir hans ótta. 31. Og svo dó þessi madur á þenna hátt, og eptirlét, ei ad eins þeim úngu, heldur og þeim flestu medal fólksins, edallyndis dæmi og dygdar minnis merki.

## 7. Kapituli.

Um píslarvætti konu nokkurrar og hennar 7 sona.

1. Þad skédi og, ad sjø brædur teknir med módur sinni, voru neyddir til ad smakka þad forbodna svínakjøt, af Konúnginum, og lamdir med svipum og ólum. 2. En einn af þeim tók til orda og mælti: hvørs viltu þá spyrja oss, og hvad fá af oss ad vita? því vér erum þess fúsari ad deya enn yfirtroda løg vorra fedra. 3. Þá reiddist Kóngurinn og baud ad gjøra glóandi pønnurnar og katlana. 4. Og sem þeir voru ordnir glóandi, skipadi hann, ad skéra strax túnguna úr þeim, sem hafdi talad, og flá af honum húdina, og høggva af honum høfudid og limina, svo ad hinir brædurnir og módirin sæu. 5. Sem búid var nú ad høggva af honum limina, baud (Kóngurinn) ad bera hann lifandi á eldinn og sjóda hann. Og sem gufuna úr katlinum lagdi um kríng, eggjudu þeir (brædur) hvør annan, med módirinni, ad deya med hugprýdi, og søgdu: 6. Gud Drottinn sjer þad og miskunar oss vissulega, eins og Móses hefir berlega kunngjørt í sínum ljódum, þar, sem hann segir: Gud mun miskuna sínum þjónum.

7. Þegar sá fyrsti var nú andadur á þennan hátt, leiddu þeir hinn annann til píntínganna; og sem menn høfdu dreigid húd med hári af líkamanum, spurdu þeir hann: 8. Viltu nú eta ádurenn vér píntum þinn líkama lim fyrir lim? En hann svaradi á túngu sinna fedra og sagdi: nei! hvørsvegna hann var píntadur sem sá fyrsti. 9. En í þeim seinustu andarslitrum mælti hann: þú vitstola madur! þú sviptir oss ad sønnu þessu lífi, en Konúngur heimsins, mun vekja oss sem deyum fyrir hans løgmál, til eilífrar endurlífgunar.

10. Eptir þennan var sá þridji háduglega leikinn, og þá menn heimtu hans túngu, rak hann hana strax útúr sér, rétti út høndina einardlega, 11. og mælti med hugprýdi: frá himni hefi eg þessa feingid, og sakir hans løgmáls géf eg hana, og vona ad fá hana aptur hjá honum. 12. Svo ad Kónginn og hans menn furdadi á únglíngsins hug, hvørsu hann mat kvølina einkis.

13. Og sem þessi hafdi upp géfid andann, píndu og kvøldu þeir þann fjórda, á sama hátt. 14. Og sem hann var kominn ad dauda, mælti hann: þad er æskilegt, þá madur er deyddur af mønnum, ad hafa þá von til Guds, ad verda af honum uppvakinn til lífsins.

15. Eptir þetta leiddu þeir fram þann fimta og píndu hann. 16. Þessi leit uppá (kónginn) og mælti svo: af því þú ert voldugur medal mannanna, en þótt þú sért daudlegur, gjørir þú hvad þú villt; en hugsa þú ekki ad vort fólk sé af Gudi yfirgéfid. 17. Bíd ad eins, þá muntu fá ad reyna hans mikla mátt, hvørsu hann mun refsa þér og þinni ætt.

18. Eptir þennann leiddu þeir fram hinn sjøtta, og þá hann var ad dauda kominn, mælti hann: drag ei sjálfann þig á tálar til einkis! vér þolum þetta fyrir egin søk, þared vér høfum syndgad móti Gudi vorum, og því eru undur (þessi) skén. 19. En ætlast þú ekki til ad þú verdir óhegndur, þared þú hefir dirfst ad strída gégn Gudi.

20. En yfirhøfud var módirin addáanlegust, og þess makleg, ad hennar sé gétid med hrósi, sem sá sína sjø syni líflátna á einum degi og þoldi þad med hugprýdi, af voninni til Drottins. 21. Hvørn og einn af þeim áminnti hún,

full edallyndis, í fedranna túngumáli, og hresti kvennmanns sinnid med kallmanns hug, og sagdi vid þá: 22. Ekki veit eg hvørnig þér erud til ordnir í mínum kvidi, ekki hefi eg heldur géfid ydur andardrátt og líf, ekki hefi eg afmælt frumefni hvørs ydar. 23. Því mun heimsins skapari, sem myndad hefir manninn, og upphugsad skøpun allra hluta, géfa ydur aptur miskunsamlega andardrátt og líf, þegar þér framseljid ydur nú, sakir hans løgmáls.

24. En Antiokus, sem hélt verid væri ad gjøra gis ad sér, og ætladi ad talid (konunnar) væri spott, taldi um fyrir þeim ýngsta, sem enn var eptir, ei ad eins med ordum, heldur sór honum dýrann eid, ad hann skyldi gjøra hann ríkann og sælann, ef hann segdi sig undan løgum fedranna; og skyldi hafa hann fyrir vin, og trúa honum fyrir embættum. 25. En sem únglíngurinn gaf þessu eingann gaum, kalladi Konúngurinn módurina, og áminnti hana ad ráda dreingnum heilt. 26. Þá hann hafdi nú leingi talid um fyrir henni, tókst hún á hendur ad yfirtala soninn. 27. Hún laut nidur ad honum, og mælti, í því hún gjørdi gis ad þeim grimma hardstjóra, á túngu fedranna: Sonur! aumkastu yfir mig, sem bar þig níu mánudi undir hjartanu, og hafdi þig þrjú ár á brjósti, og hefi nært þig og uppalid til þessa aldurs, og um þig hirdt. 28. Eg bid þig, barn, horfdu upp í himininn og á jørdina og á allt sem í þeim er ad sjá og þekkja, (og vit) ad Gud hefir gjørt þetta af eingu, og ad mannkynid er eins til ordid. 29. Vertu ekki hræddur vid þennan bødul, heldur sýn þig verdugann þínum brædrum og þol þú daudann, svo eg fyrir Guds nád finni þig aptur, med þínum brædrum.

30. Medan hún var enn ad tala, sagdi úngmennid: hvørs bídid þér? eg hlýdi ei Kóngs bodinu, heldur hlýdnast eg bodi løgmálsins sem vorum fedrum var géfid, fyrir Móses. 31. En þú sem ert ordinn frumkvødull alls ills vid Hebreska, þú munt ei umflýa Guds hendur. 32. Því vér þolum íllt sakir vorra synda. 33. En þó ad sá lifandi Drottinn reidist oss um stuttann tíma, til ad refsa oss og aga, svo mun hann líka sættast aptur vid sína þjóna. 34. En þú gudlausi madur, og allra manna afhrak, hroka þér ei til ónýtis, ætlandi uppá fánýta von, þá þú lyptir upp þinni hendi móti hans þjónum. 35. Því enn hefir þú ei sloppid undan hegníng þess almáttuga og alskygna Guds. 36. Vorir brædur hafa nú þolad stutta kvøl og eru í sáttmála Guds komnir til eilífs lífs; en þú munt fyrir Guds dóm medtaka makleg laun fyrir þinn ofmetnad. 37. Eg, eins og brædur mínir, géf út líkama og sál fyrir fedranna løgmál, og bid Gud, ad hann skjótt verdi nádugur sínu fólki, og ad þú hljótir ad vidurkénna, undir kvølum og píntíngum, ad hann sé sá eini Gud, 38. en ad reidi hins almáttuga, sem maklega er komin yfir allt vort fólk, stødvist hjá mér og mínum brædrum. 39. Kóngurinn ordinn ódur, fór enn verr med þennann, en hina adra, því af spottinu vard hann enn heiptugri, 40. Og svo uppgaf þessi saklausi (únglíngur) andann í fullu trausti til Guds. 41. Seinast eptir sonuna dó líka módirin. 42. Þetta sé nóg sagt um blótin og þær óvenjulegu píntíngar.

## 8. Kapítuli.

Júdas Makkabeus vinnur mikinn sigur.

1. En Júdas Makkabeus og hans menn fóru leynilega um þorpin og eggjudu sína landsmenn og tóku þá med sér sem ei voru geingnir af Gydínga trúnni og søfnudu hérumbil 6 þúsundum. 2. Og þeir ákølludu Drottinn ad líta til síns fólks, sem af øllum

var fóttrodid, og líka ad miskuna sig yfir musterid sem vanhelgad var af gudlausum mønnum, 3. líka ad taka ad sér þá nidurrifnu borg, sem hótad væri algjørdri eydileggíngu, og ad bænheyra þad blód sem til hans kalladi, 4. ad muna líka til ránglátlegs mords enna saklausu barna, og refsa fyrir lastyrdin gégn hans eigin nafni. 5. Þegar Makkabeus hafdi nú ad sér dregid flokk manna, gátu heidnir ekki stadist fyrir honum, því Drottins reidi snérist til miskunar. 6. Borgir og þorp rédist hann á þegar minnst vardi og brenndi þau, og í því hann var ad ná undir sig haganlegustu stødunum, sigradi hann ei fáa óvini og hrakti þá á flótta. 7. Optast gjørdi hann þessi áhlaup á nóttu og mikid ord fór allstadar af hans hreisti.

8. En er Filippus sá ad madurinn hafdi mikinn framgáng á stuttum tíma, og heppnadist allt betur og betur, skrifadi hann Tólomeus, høfudsmanni í nedra Sýrlandi og Føniku, ad hann skyldi koma til lids Konúngsins málefnum. 9. Þessi valdi strax Nikanor Patrokls son, einhvørn sinn besta vin, og fékk honum ekki minna enn 20 þúsundir manns af allsslags þjódum, og sendi hann af stad til ad afmá alla Gydínga þjódina. Hann fékk honum og hershøfdíngjann Gorgias, sem kunni vel til stríds. 10. En Nikanor lofadi ad saman heimta fyrir hertekna Gydínga þann skatt, er Kóngur skyldi greida Rómverjum sem var 2 þúsund vættir (silfurs). 11. Svo sendi hann strax til þeirra borga sem liggja vid sjóinn, og baud til kaups Gydínga í þrældóm, og lofadi ad láta 90 fyrir vætt, en ei kom honum í hug sú hegníng hins almáttuga, er skyldi ná honum.

12. En Júdasi komu tídindi um Nikanors herfør; og sem hann sagdi þeim sem med honum voru, frá komu þessa hers, 13. flýdu þeir huglausu og þeir sem ekkért traust høfdu á Guds réttlæti og fóru burt; 14. en adrir seldu allt sem þeir áttu, og bádu Drottinn ad bjarga sér, sem fyrir orustuna væru seldir af þeim gudlausa Nikanor; 15. og ef ei sakir þeirra, svo þó sakir sáttmálans vid fedur þeirra, og hans eigin dýrdlega og mikla nafns, eptir hvørju þeir væru nefndir. 16. Nú kalladi Makkabeus saman þá sem med honum voru, 6 þúsund ad tølu, og áminnti þá ad hræðast ekki óvinina, né fælast fyrir þeim fjølda sem svo ránglátlega ad þeim færi, heldur berjast dreingilega, 17. og hafa sér fyrir augum þann ofmetnad og plágur, sem þeir svo ránglátlega hefdu haft í frammi vid þann heilaga stad, og hvørsu fedranna sidir hefdu verid afteknir.

18. „Því þessir, mælti hann, reida sig á vopn sín og dirfsku, en vér reidum oss á almáttugann Gud, sem orkar því ad tortína, ei ad eins øllum sem móti oss koma, heldur og øllum heiminum med einni bendíngu.“ 19. Hann minnti þá líka á þá hjálp sem fedur þeirra hefdu feingid, og (medal annars) móti Sankérib, hvørsu 85 þúsundir hefdu farist, 20. og á bardagann í Babýlon móti Galøtum, hvørsu þeir, 8ta þúsund manns, geingu í orustu med fjórum þúsundum Makedoniskra, og þegar Makedoniskir voru ordnir hræddir, unnu þær 8ta þúsundir, hundrad og 20 þúsundir, fyrir þá adstod sem þeim veittist frá himni, og hvørsu þeir tóku þar mikid herfáng.

21. Med þessu gjørdi hann þá ørugga og reidubúna ad deya fyrir løgmálid og føðurlandid, og skipti sínum her í fjóra flokka; 22. Hann setti og brædur sína fyrirlida, sinn yfir hvørn flokkinn, Símon og Jósep og Jónatan, og fékk hvørjum þeirra 15 hundrud manns; 23. sømuleidis og Eleasar. Eptir ad hann hafdi lesid þá heiløgu bók og gefid þeim audkénnis ordid: Guds hjálp: rédist hann á

Nikanor, því hann var sjálfur fyrir þeim fyrsta flokki. 24. Og af því sá almáttugi veitti honum hjálp, drápu þeir af óvinunum meir enn 9 þúsundir, særdu og limlestu mestann partinn af Nikanors her, og ráku alla á flótta. 25. Þeir tóku peninga þeirra sem komnir voru til ad kaupa þá (Gydíngana) og eltu óvinina lánga leid, eptir þad snéru þeir frá, því tíminn var naumur, 26. þared þessi dagur var sá næsti fyrir hvíldardaginn, hvørs vegna þeir héldu ei áfram ad elta þá. 27. Eptir ad þeir høfdu borid saman vopn óvinanna, og tekid þeirra herfáng, héldu þeir hvíldardaginn og lofudu þá og vegsømudu Drottinn rækilega, sem hafdi bjargad þeim þennann dag, og birjad á þeim ad miskuna. 28. En eptir hvíldardaginn midludu þeir naudstøddum, ekkjum og munadarlausum (nokkru) af herfánginu, en hinu skiptu þeir milli sín og sinna barna. 29. Þegar þeir høfdu lokid þessu, og sameiginlega haldid bænagjørd, beiddu þeir þann miskunsama Drottinn, ad sættast algiørlega vid sína þjóna.

30. Og af þeim sem stríddu med Tímóteus og Bakkídes, drápu þeir meir enn 20 þúsundir, og unnu sterka kastala, og skiptu miklu herfángi, og létu naudstadda og munadarlausa og ekkjur og líka aldrada fá jafnan hlut vid sig. 31. Eptir ad þeir høfdu samanborid vopn óvinanna, løgdu þeir hvad eina á hentuga stadi, en hid annad herfáng fluttu þeir til Jerúsalem. 32. Þeir drápu líka Filarkes, einn af vinum Tímóteus, næsta gudlausann mann, sem hafdi mjøg ángrad Gydínga. *) 33. Og sem þeir héldu sigurhátíd í sinna fedra borg, brendu þeir Kallistenes og nokkra adra, sem kveikt høfdu í hlidum þeirrar heiløgu borgar, þá þeir voru flúnir í húskorn; og þessir fengu þá makleg laun fyrir sitt gudleysi. 34. En sá illræmdi Nikanor, sem hafdi haft med sér þúsund kaupmenn, til ad kaupa Gydíngana, 35. audmýktur af þeim, er hann mat lítils, fyrir Herrans hjálp, lagdi nidur sinn skrúda og flúdi aleinn eins og strokumadur um midlendid og kom til Antíokíu, og undi því illa ad herinn hafdi fyrirfarist. 36. Og sá sem hafdi skuldbundid sig ad ná skattinum til Rómverja, af faungunum í Jerúsalem, kunngjørdi, ad Gydíngar hefdu Gud, sem berdist fyrir þá og því væru ósæranlegir, vegna þess þeir fylgdu þeim løgum sem hann hefdi sett.

## 9. Kapítuli.

Antíokus deyr.

1. En á þeim sama tíma bar svo til, ad Antíokus kom aptur úr Persíu hérødum med ósæmd. 2. Því hann hafdi brotist inn í Persepolis og reynt til ad ræna musterid og kreppa ad borginni. Því gjørdi fólkid uppreist og greip til vopna; og þad fór svo, ad Antíokus var unnin af innbúunum, og vard ad flýa tilbaka med hádúng. 3. En sem hann var í Ekbatana, fékk hann tídindin um þad, hvørnig komid var fyrir þeim Nikanor og Tímóteus, 4. vard hann þá ákaflega reidur og ætladi sér ad láta býtna á Gydíngum illvirki þeirra, sem høfdu rekid hann á flótta. Því baud hann þeim sem ók vagninum, tafarlaust ad halda áfram ferdinni, og þó var refsíngin af himni honum nálæg; því svona drambsamlega taladi hann: Jerúsalem skal eg gjøra, þegar eg kém þángad, ad Gydínganna legstad. 5. En sá alvoldugi Drottinn, Ísraels Gud, sló hann med ólæknanlegri og ósýnilegri plágu og þá hann naumast hafdi lokid sínu tali, greip ópolandi kvøl í innislunum hann, og sár verkur innvortis: 6. og næsta maklega; því hann hafdi

B. *) 33. Fylgjandi vers þessa Kapit. vantar í þá Íslendsku útl:

þínt innifli annara med mørgum og óvenjulegum þjáníngum.

7. En ekki lét hann enn af sínum ofmetnadi, heldur var hann enn nú fullur af drambsemi, og logadi af heipt vid Gydínga, og baud ad flýta ferdinni. En þad vildi til ad hann féll úr vagninum á hrødustu ferd, og fékk mikla biltu, svo allir limir hans líkama fóru úr lagi. 8. Hann, sem af meir enn manns yfirlæti hafdi hugsad híngad til ad hann gjæti rádid vid hafsins bylgjur, og vegid þau háu fjøll, lá nú á jørdu, og var borinn á børum, og sýndi þannig øllum augljósann vott Guds máttar; 9. svo ad í líkama hins gudlausa lifnudu ormar, og holdid datt af hans lifandi líkama med mikilli pínu og kvøl, en ólyktin af honum var øllum hernum óþolandi sakir holdfúans. 10. Og þann, sem skømmu ádur þóttist géta nád til stjarna himinsins, gat nú einginn borid sakir óþolandi þýngdar fýlunnar.

11. En nú, svo illa til reika, fór hans ofmetnadur heldurenn ekki ad sjatna, og hann kom til vidurkénníngar, því kvølin af þeirri gudlegu plágu ágjørdist á hvørju augnabliki. 12. Þá hann gat nú ei leingur þolad óþefin af sjálfum sér, mælti hann: þad er réttvíst ad audmýkja sig fyrir Gudi, og ætla ei, í ofmetnadi, ad sá daudlegi sé Gudi líkur. 13. Sá vitstola madur bad og Drottinn sem ekki vildi honum framar miskuna, og sagdi: 14. ad hann vildi géfa frelsi þeirri heiløgu borg, sem hann var ad hrada sér ad eydileggja í botn og grunn, og ætladi ad gjøra ad legstad daudra manna. 15. Og ad gjøra alla Gydínga Atenu borgarmønnum líka, þá, sem hann hafdi álíktad ad virda jafnvel ei svo mikils, ad láta þá fá greftrun, heldur ad snara þeim sem fuglaæti, med þeirra børnum, fyrir villudýr; 16. og ad prýda þad heilaga musteri, sem hann ádur hafdi rænt, med falleguſtu dýrgripum, og margfaldlega ad bæta (því) aptur þau helgu áhøld, og géfa af sínum eigin inntektum þann naudsynlega kostnad til fórnanna. 17. Og þar ad auki ad hann skyldi gjørast Gydíngur, og fara um alla bygda stadi og kunngjøra Guds mátt.

18. En sem pínan eingan vegin rénadi, því yfir hann var komin Guds réttvís hegníng, vard hann vonlaus og skrifadi Gydíngum eptirfylgjandi bréf, sem líkist afbeidni og hljódar þannig:

19. Konúngur og hershøfdíngi Antíokus, (óskar) þeim gódu Gydíngum, heilla, velgeingni og gjæfu! 20. Þegar ydur og ydar børnum velvegnar og ydur geingur allt ad óskum, heiti eg Gudi mestu þøkk, og set mína von til himinsins. 21. En eg ligg nú sjúkur, og minnist mannkjærlega ydar virdíngar og velvildar. Eg em á minni heimferd úr Persíu hérødum ordin veikur, og hefi því haldid naudsynlegt ad annast sameiginlega naudsyn allra. 22. En nú er eg ad sønnu ekki vonlaus um ad mér batni, heldur hefi mikla von um, ad komast aptur á fætur; 23. en þar eg veit ad fadir minn, þegar hann fór herfør til upplanda, kaus sér eptirmann, 24. til þess ef eitthvad uppá kjæmi, eda einhvør óþægileg tídindi bærust, vissu landsins innbúar strax, hvør ríkjandi væri ordin, og yrdu ei svo sem forvida; 25. og þared eg héradauki hefi tekid eptir því, ad næstu landshøfdíngjar og nábúar ríkisins vaka yfir tækifærinu, og afdrifunum, hefi eg kosid son minn Antíokus til Kóngs, sem eg opt ádur hefi bædi trúad flestum ydur fyrir og falid ydur á hendur, þá eg fór herfarir, í hin efri lénsherradæmi. Honum hefi eg skrifad hjálagt bréf. 26. Eg áminni ydur og bid, ad hvør einn minnist minna velgjørda yfirhøfud og sérdeilislega, og sé hollur og trúr syni mínum. 27. Því eg er viss um ad hann mun aud-

sýna ydur gódsemi og mannkjærleika, og líkjast mér í því.

28. Þessi manndrápari og gudlastari endadi nú sitt líf eptir óttalegustu þjáníngar, vidlíka og hann hafdi lagt á adra, í framandi landi, á fjøllum, med hørmulegasta dauda. 29. Filippus æskuvinur hans, gróf hans líkama, sem af ótta fyrir syninum Antíokus, fór til Tólómeus Filómetor í Egyptalandi.

## 10. Kapítuli.

Musterid er hreinsad. Júdar vinna Edomítaland og Tímóteus.

1. En Makkabeus og hans menn tóku aptur musterid og borgina fyrir Guds fulltýngi a), 2. og rifu nidur þau ølturu og godahof, sem útlendir høfdu byggt á torginu. 3. Og þeir hreinsudu musterid, og reistu annad altari, og eldbáru steinana og tóku úr þeim eld og fórnfærdu nú eptir lidin tvø ár, og tilreiddu reykverk og ljósastjaka og skodunarbraud. 4. Ad þessu búnu, bádu þeir Drottinn, og féllu nidur á sínar ásjónur, ad þeir ei framar røtudu í slíka ógjæfu, heldur, þó þeim jafnvel yrdi eitthvad á, ad þeim samt yrdi refsad af honum med vægd, en þeir ei framseldir í hendur þeim grimmu og gudløstunarsømu þjódum. 5. En þad vildi svo til, ad þann sama dag (í árinu) sem útlendir høfdu vanhelgad musterid, skédi þessi hreinsun, þann 25ta hins sama mánadar, sem ad er Kaselev.

6. Og þeir héldu heilagt med føgnudi í 8ta daga einsog á laufskála hátídinni, og minntust þess, hvørsu þeir, fyrir skémstu, á laufskála hátídinni høfdu búid á fjøllum og í hellrum eins og villudýr. 7. Því báru þeir vínvidarstafi og fallegar greinir, og jafnvel pálmavid og súngu lofsálma þeim, er hafdi látid þeim heppnast ad hreinsa sitt musteri. 8. Og þeir einskordudu fyrir allt Gydínga fólk, med almennilegri løggjøf og áliktan, ad halda skyldi þessa daga helga á hvørju ári. 9. Og þessi voru æfilok Antíoks, sem auknefndur var Epifanes (sá gøfgi).

10. Hér eptir viljum vér nú segja frá því sem vidbar undir (ríkisstjórn) Antíoks Evpators, sem var sonur hins gudlausa, en førum ekki mørgum ordum um strídsóhøppin. 11. Þá hann hafdi setst ad ríkjum, setti hann Lysías nokkurn yfir ríkisstjórnar sakirnar og høfudsmann í nedra Sýrlandi og Føníkíu. 12. Því Tólómeus, ad auknafni Makrón, stakk fyrstur manna uppá því, ad sýna Gydíngum sannsýni, af því þeir ádur hefdu ordid fyrir órétti, og leitadist vid ad semja vid þá fridsamlega; 13. þá hann nú var fyrir þetta rægdur vid Evpator af vinum hans, og allstadar landráda madur kalladur, af því hann fór frá Kypern, sem Tólómeus Filómetor hafdi trúad honum fyrir, og gékk á hønd Antíokus Epifanes, og hafdi ekki gøfuglegt veldi, tók hann ólifjan inn í ørvæntíngu og gjørdi enda á sínu lífi.

14. En er Gorgías var ordin hofudsmadur þessara hérada, hafdi hann útlendan her og lá í sífeldum ófridi vid Gydínga. 15. Ásamt med honum áreittu Idúmeu menn, sem høfdu kastala á haganlegum stødum, Gydíngana, tóku vid stroku mønnum úr Jerúsalem, og rédust í hernad.

16. En Makkabeus og hans menn rédust á vígi Idúmeu manna, eptir ad þeir høfdu haldid bænagjørd, og bedid Gud ad vera med sér í strídinu. 17. Þeir rédust á þau kallmannlega og nádu þessum stødum, og hefndust á øllum sem børdust á múrunum; þeir drápu alla sem fyrir þeim urdu, og fyrirfóru ekki færri enn 20 þúsundum. 18. Enn þared ekki færri enn 9 þúsundir manna høfdu flúid í tvo, mjøg ram-

V. 1. *a.* Eiginl: því Gud var þeirra fyrirlidi.

byggilega kastala, sem høfdu nægtir af øllu sem þeir þurfa ad hafa, sem eru umsetnir: 19. Lét Makkabeus eptir verda hjá þeim Símon og Jósep, og líka Sakkeus og nóg af fólki til umsáturs og fór sjálfur þángad sem meiri var þørfin. 20. En Símons menn létu sig af fégirnd undirstínga af nokkrum þeim sem voru í kastølunum, med peníngum, þeir tóku vid 70 þúsund mørkum og létu nokkra sleppa út. 21. Þegar Makkabeus fékk ad vita þad sem gjørst hafdi, samansafnadi hann fyrirlidum fólksins, og ákjærdi þá fyrir, ad þeir hefdu seldt brædur sína fyrir peninga, og látid óvinina lausa þeim til skada. 22. Hann lét nú aflífa þá sem ordnir voru landrádamenn, og vann skjótt báda kastalana. 23. Og þared hann med vopn í høndum allstadar vard heppin, deyddi hann í bádum køstulunum meir enn 20 þúsundir manns.

24. En Tímóteus, sem ádur hafdi haft ósigur fyrir Gydíngum, safnadi miklum fjølda hermanna, dróg ad sér ekki fátt riddaralid í Asíu, og kom til ad vinna Júdaland med vopnum. 25. En Makkabeus og hans menn snérust, þá hann nálgadist þá, med bæn til Guds; og í því þeir køstudu mold yfir høfud sér og girdtust sekk um lendarnar, 26. og féllu nidur vid altaris fótinn, bádu þeir ad hann væri sér nádugur, ad hann vildi vera óvinur þeirra óvina, og veita mótstødu þeirra mótstødumønnum, eins og løgmálid heitir. 27. Og sem þeir høfdu gjørt þessa bæn, gripu þeir til vopna og fóru lánga leid burt úr borginni: og er þeir voru komnir í nánd vid óvinina, stødvudu þeir herinn. 28. Einmidt þá sól rann upp, slóst í bardaga med þeim; adrir høfdu þant fyrir gjæfudegi og sigri med hreystinni, traustid á Gudi, en hinir létu gédid vera sinn leidtoga í bardaganum.

29. Þegar orustan var nú sem ákøfust, birtust óvinunum af himni á gullbeitsludum hestum fimm veglegir menn; tveir af þeim fóru fyrir Gydíngum, 30. og tóku Makkabeus milli sín og hlífdu honum med sínum verjum, svo ekki vard sári á hann komid, en skutu á óvinina og sleingdu eldíngum: af hvørju þeir mistu sýn og ridludust og hrukku fyrir, fullir skélfingar. 31. En þar féllu 25 þúsundir fótgaungu lids og sex hundrud af riddara lidi: 32. Tímóteus sjálfur flýdi í borgina Gasara, sem var vel varin, hvar Kereas sjálfur var høfudsmadur.

33. En Makkabeus og hans menn umsátu kallmannlega borgina í fjóra daga. 34. Þeir umsetnu, sem reiddu sig á stadarins vígi, létu dynja lastyrdi og ósæmileg ord. 35. En er sá fimti dagur rann upp, rédust 20 úngir menn úr lidi Makkabeus á múrvegginn, upptendradir af reidi sakir lastyrdanna, og løgdu ad velli kallmannlega og med grimdar gédi hvørn sem fyrir þeim vard. 36. En hinir adrir fóru líka á ødrum stad móti þeim umsetnu, kveiktu í turnunum og brendu lastmælendurnar lifandi á upphlødnum vidar budlúngum, adrir rifu nidur borgar hlidin, og létu hinn herinn komast inn, og unnu stadinn. 37. Tímóteus, sem hafdi falid sig í grifju, drápu þeir, og bródur hans Kereas líka, sømuleidis Appollofanes, 38. og eptir þennan starfa vegsømudu þeir Drottinn, sem hafdi audsýnt Ísrael svo mikla velgjørd, ad veita þeim sigur, med lofgjørdar og þakklætis sálmum.

## 11. Kapítuli.

Gydíngar sigrast á Lysías og fá frid.

1. Eptir mjøg stuttan tíma safnar Lysías, fóstri og frændi kóngsins, og ríkisins forstjóri, sem undi því illa er skéd var, 2. hartnær 80 þúsundum manns, og øllu riddaralidinu, og fór á móti Gydíngum, og ætladi sér ad gjøra borgina ad bústad Grikkra, 3. og láta musterid tolla sér eins og ønnur musteri heidíngjanna, og

selja árlega æðsta-prests embættið; 4. en honum kom ei til hugar veldi Guðs, heldur metnaðist af sínum 10 þúsundum fótgaungulids og þúsundum riddaralids og 80 filum. 5. En er hann var kominn inní Júdaland og í nánd við Betsúru, sem var øflugt vígi og lá fimm skeidrúm fra Jerúsalem, settist hann um það. 6. En er Makkabeus og hans menn fréttu að hann væri setstur um festínguna, báðu þeir Drottinn, ásamt fólkinu, með harmakveini og tárum, að hann vildi senda Ísrael góðan eingil til bjargar. 7. Makkabeus sjálfur herklæddist fyrstur, og eggjaði hina aðra að fara með sér útí háskann, og koma til liðs bræðrum þeirra. Strax løgðu þeir og af stað með fúsu gédi.

8. En er þeir voru skamt frá Jerúsalem, birtist þeim riddari, sem fyrirliði, hvítklæddur, og veifaði hann gull vopnum. 9. Þá vegsømuðu þeir allir ásamt þann miskunsama Guð og urðu svo øruggir, að þeir voru reiðubúnir, ei að eins til að leggja menn í gégn, heldur og ólmustu dýr, og (brjótast inn um) járngirðíngar. 10. Vopnaðir fóru þeir áfram með þeim himneska verndara, er Drottinn af náð sinni hafði sendt. 11. Eins og ljón steyptu þeir sér yfir óvinina og feldu af þeim ellefu þúsundir fótgaungu liðs, og sextán hundruð riddaraliðs, og alla ráku þeir á flótta. 12. Flestir af þeim sem undan komust voru sárir og vopnlausir, og Lysías sjálfur komst undan með háduglegum flótta. 13. En þareð hann var ekki óskinsamur maður, yfirvegaði hann með sjálfum sér þann feingna ósigur, og sá, að Hebreskir mundu vera ósigranlegir undir vernd þess Almáttuga Guðs. Hann sendi því til þeirra sendiboða, 14. og tjáði þeim, að hann vildi semja við þá um allt sannsýnilegt, og þess vegna líka yfirtala Kónginn, að hann hlyti að verða þeirra vinur. 15. Makkabeus samsinnti øllu er Lysías stakk uppá, þareð hann sá sinn hag, því allt sem Makkabeus lagði skriflega fram fyrir Lysías, viðvíkjandi Gyðíngum, það veitti Kóngurinn. 16. Svona hljóðaði nefnil: það bréf sem Lysías skrifaði Gyðíngum.

„Lysías heilsar Gyðínga fólki! 17. Jóhannes og Absalon yðar sendibodar, hafa eptir afhendíngu þess undirskrifaða svars, beðið um það sem þar er minnst á. 18. Eg hefi tjáð Kónginum það sem var þesshátttar, að til hans hlaut að koma, og hann hefir veitt það sem gjørlegt var. 19. Ef þér nú framvegis verðið ríkisstjórninni hollir og trúir, svo vil eg líka héreptir leitast við að stuðla til yðar heilla. 20. Viðvíkjandi nokkrum sérdeilislegum hlutum, hefi eg falið á hendur þessum mønnum og mínum (mønnum) við yður að tala. Verið þér sælir! 21. Á hundraðasta fertugasta og áttunda ári, 24ða Dioskorint (mánaðar).

22. Bréf Kóngsins var svo látandi:

„Antíokus Konúngur heilsar bróður sínum Lysías! 23. Það er vor ósk, allt í frá þeim tíma vor faðir fluttist til guðanna, að þegnar vors ríkis géti stundað sín efni í ró. 24. Þareð vér nú høfum heyrt að Gyðíngar vilji ei samþykkir verða þeirri umbreytíngu til Grískra siða, sem faðir vor hafði auga á, heldur taki sína eigin siði framyfir, og biðji þess vegna að þeir megi halda sínum løgum, 25. og þareð vér gjarnan viljum, að einnig þetta fólk sé óáreitt: þá er vor úrskurður sá, að musterið verði þeim aptur feingið og þeir lifi eptir háttum sinna forfeðra. 26. Þú gjørir nú vel ef þú sendir til þeirra, og semur frið við þá, svo þeir kannist við vora velvild, verði glaðt í gédi, og gángi með lyst að sínum størfum".

27. En Konúngsins bréf til fólksins var sem fylgir:

„Konúngur Antíokus sendir Øldúngum Gyð-

ínga, og ødrum Gydíngum sína kvedju! 28. Ef ydur vegnar vel, svo er þad oss ad óskum; vér erum og heilir heilsu. 29. Menelaus hefir tjád oss, ad þér óskid aptur ad hverfa til ydar eigin naudsynja. 30. Þeir sem nú heim fara allt til þess 30ta Santikus (April?) skulu hafa áreidanlegasta loford, 31. ad Gydíngar skuli sem ádur hafa sína eigin fædu og løg, og ad eingin af þeim skuli uppá nokkurn hátt gjalda drýgdra afbrota. 32. Eg sendi líka Menelaus sem skal gjøra ydur þessa fullvissa. 33. Verid sælir! árid 148 þann 15da Santikus mánadar".

34. Rómverjar sendu og bréf til þeirra svo látandi:

Kvintus Memmius, Titus Manlius, sendiherrar Rómverja, senda kvedju sína Gydínga fólki! 35. Þad sem Lysías Konúngs frændi hefir ydur leyft, þad sampikkjum vér og. 36. En þad sem hann hefir ályktad ad bera undir Konúnginn, þá yfirvegid þad, og sendid sem skjótast einhvørn, ad vér gétum þad framborid, sem oss sæmir; því vér førum nú til Antíokíu. 37. Hradid ydur því og sendid einhvørja, svo vér líka vitum ydar meiníngu. 38. Lifid sælir! árid 148 þann 15 Sant.

## 12. Kapítuli.

Nýr fjandskapur vid Gydínga.

1. Eptir ad þessi samníngur var gjørdur, fór Lysías aptur heim til Kóngsins, og Gydíngar gjættu sinnar akuryrkju. 2. En þó létu héradanna landshøfdíngjar þá ekki hafa ró né lifa í fridi, nefnil: Tímóteus og Apolloníus sonur Genneus, sømuleidis Hierónymus og Demofon, og enn nú þaradauki Nikanor lénsherra í Kypern. 3. En innbúarnir í Joppe adhøfdust þetta skálkastrik. Þeir budu þeim Gydíngum, sem medal þeirra byggju, med þeirra konum og børnum ad gánga út á þau smáskip sem þeir høfdu reidubúin, eins og í vinsemi; 4. en eptir sameiginlegri áliktun stadarins, þegar hinir høfdu þád þetta, því þeir vildu lifa í eindrægni vid þá og grunadi ekkért, drekktu þeir þeim, þá þeir voru komnir frá landi, í djúpi (sjáfarins), og þessir voru ei færri enn 2 hundrud. 5. Þegar Júdas fékk nú ad frétta þá grimd, sem var í frammi høfd vid hans landsmenn, sagdi hann sínum mønnum frá; 6. og eptir ad hann hafdi ákallad Gud, þann réttláta dómara, rédist hann ad mordíngjum sinna brædra og brendi þeirra høfn á náttarþeli, og kveikti í þeirra skipum, og deyddi þá sem þángad høfdu flúid. 7. En af því stadurinn var illur adgaungu, hvarf hann frá, til þess ad koma aptur og eydileggja algjørlega allt ríki þeirra í Joppe.

8. Og sem hann frétti ad þeir í Jamnia ætludu sér ad fara eins med þá Gydínga, sem medal þeirra bjuggu, 9. yfirféll hann Jamnítana á náttarþeli, og brenndi høfnina med skipaflotanum, svo glampinn af bálinu sást í Jerúsalem, í 2 hundrud og 80 skeidrúma fjærlægd. 10. En er þeir voru þadan komnir 9 skeidrúm, og ætludu móti Tímoteus, rédust Arabiskir á hann, ekki færri enn 5 þúsund manns og 5 hundrud af riddara lidi. 11. Þar vard snørp orusta; en Júdasi og hans mønnum veitti betur, fyrir Guds fulltýngi, og þeir sigrudu hjardmennina; þeir (Arabar) beiddu Júdas um frid, og lofudu ad géfa honum fénad, og ad ødru leiti ad vera honum lidsinnandi. 12. Og Júdas, sem héldt, ad þeir med mørgu móti gjætu verid sér til lids, gaf þeim grid, og eptir gjørdann samníng fóru þeir til tjalda sinna.

13. Líka rédist hann á borg, sem var varin med brúm og umgirdt múrveggjum, hún hét Kaspis og bjuggu þar allslags þjódir. 14. En stadarmenn, sem reiddu sig á þá sterku

múra og vista gnægdina, voru illa blekktir, því þeir dárudu Júdas og hans menn, og ofan í kaupid atyrdtu þá og svívirdtu í tali sínu. 15. En Júdas og hans menn ákølludu þann mikla heimsins Herra, sem án a) hrúta, strídstóla, lét Jerikó nidurhrynja á Jósúa døgum, og gjørdu snarpa árás á borgarvegginn. 16. Og þeir nádu borginni med Guds vilja, og drápu mesta mannfjølda í henni, svo þad sýndist sem þad støduvatn, er þar var hjá, tvø skeidrúm á breidd, væri ordid ad blódi.

17. Þadan fóru þeir 750 skeidrúm vegar, til Karaka, og komu til þeirra Gydínga sem kallast Tubienar. 18. Því Tímóteus fundu þeir ekki í þessu héradi, sem hédan var farinn erindislaus, en hafdi eptirskilid setu-lid á vissum stad, sem var næsta øflugt. 19. En Dositeus og Sosípater, fyrirlidar hjá Makkabeus, fóru til og drápu alla sem Tímóteus hafdi látid eptir vera í víginu, meir enn 10 þúsundir manns. 20. Makkabeus skipti eptir þetta lidi sínu í flokka, og setti þessa menn fyrir flokkana, og fór á móti Tímóteus sem hafdi hjá sér 120 þúsundir fótgaungu lids og 15 hundrud riddaralids. 21. Þegar Tímóteus frétti ad Júdas kjæmi, sendi hann konur og børn og annan farángur til Karmon, því þenna stad var erfidt ad umsitja og íllt ad honum ad komast, vegna þreingsla. 22. En strax sem Júda fyrsti flokkur sást, kom ótti og skélfíng yfir óvinina ad tilhlutan hans, sem ad øllu gáir, svo þeir snérust á flótta, sinn í hvørja áttina, og meiddu hvør annann og stúngu í gégn med egin sverdsoddum. 23. En Júdas sókti mjøg fast eptir þeim, drap illvirkjana, og fyrirfór nálægt 30 þúsundum manns. 24. Tímóteus sjálfur komst á vald þeirra Dósíteus og Sósípaters, og bad med miklum undanbrøgdum ad láta sig halda lífi, því hann hefdi á sínu valdi foreldra margra, og brædur annara, og þessir mundu ei verda sparadir, væri sér fyrirfarid. 25. Þegar hann nú med mørgum ordum kom þeim til ad trúa því sem áskilid var, ad hann léti þá koma tilbaka heila á hófi, slepptu þeir honum, sakir velferdar sinna brædra.

26. Hér eptir fór hann móti Karmon og Atergation og drap nidur 25 þúsundir manns. 27. Eptir ad þessir voru sigradir og ad velli lagdir, fór Júdas og med herinn móti Efron, rambygdum stad, hvar Lysias bjó og menn af allslags þjódum. En røskir úngir menn stódu fyrir utan borgarvegginn og børdust kallmannlega, líka var þar mikill vidbúnadur, strídstál og skotverkfæri. 28. En þeir ákølludu Drottinn, sem med sínum mætti gjørdi ad eingu óvinanna styrkleika, og nádu borginni á sitt vald og drápu nidur í strá 25 þúsundir manns. 29. Hédan fóru þeir, og rédust á Skytopolis, sem liggur 6 hundrud skeidrúm frá Jerúsalem. 30. En þared þeir Gydíngar, sem þar bjuggu, vitnudu, hvílíka velvild ad Skytopolis menn audsýndu sér, og hvørsu vinsamlega þeir hefdu breitt vid sig á ógjæfunnar tíd: 31. svo þøkkudu þeir þeim, og áminntu þá, ad vera framveigis sínni þjód gódviljada, og komu svo til Jerúsalem, einmidt þegar komid var ad viku hátídinni, (5 Msb: 16, 10).

32. Eptir þá svo kølludu Hvítasunnu hátíd, rédust þeir á móti Gorgías, høfudsmanni í Idúmeu; 33. en hann fór á móti þeim med 3 þúsund fótgaungulids, og 3 hundrud riddaralids. 34. Og í bardaganum féllu fáir af Gydíngum. 35. Madur nokkur ad nafni Dósíteus, einn af Bakenors mønnum, hraustur riddari, greip Gorgías og nádi í hans kyrtil, og dró hann med sér, því hann var krapta madur, og vildi taka lifandi þann bannsetta;

V. 15. *a.* Verkfæri sem brúkast í stridi, til ad brjóta borgarveggi.

en Trakiskur riddari rédist á hann og hjó af honum handlegginn, og Gorgias flúdi til Marísa. 36. Þá þeir børdust enn leingur sem voru hjá Esdris, og urdu þreittir, ákalladi Júdas Drottinn, ad hann vildi sýna sig sem lidsmann og fyrirlida í strídinu. 37. (Og) byrjadi lofsálm med hárri rødd í fedranna máli, kalladi hátt, og steypti sér óforvarandis yfir Gorgia menn, og rak þá á flótta.

38. Eptir þad tók Júdas herinn og fór ad borginni Odollam; og sem sjøundi dagurinn kom, helgudu þeir sig, sem sídur er til, og héldu hvíldardaginn helgann. 39. Daginn eptir komu Júda menn til ad flytja burt lík þeirra manna sem høfdu fallid, eins og naudsyn krafdi, og til ad senda þau þeirra náúngum, ad þau yrdu jardsett hjá þeirra fedrum, 40. þá fundu þeir hjá sérhvørjum enna deyddu, innan klæda helgann grip godanna í Jamnia, sem løgmálid ann ei Gydíngum (ad taka); og allir sáu berlega, ad þeir, søkum þessa, høfdu fallid. 41. Allir vegsømudu nú Drottinn, þann réttláta dómara, sem opinberar þad leynilega, 42. og snérust til bænar, og bádu um þad, ad sú drýgda synd mætti algjørlega fyrirgéfin verda. En sá edallyndi Júdas áminnti fólkid, ad þad héldi sér hreinu frá synd, þared þad sæi bersýnilega, hvad vid þá føllnu, sakir syndarinnar, væri framkomid. 43. Eptir þetta lét hann þá skjóta saman 2 þúsund (Drakma) mørkum silfurs, og sendi fé þetta til Jerúsalem, ad þar fyrir yrdi framborin syndafórn: og gjørdi hann þad mjøg fallega og loflega, því hann mundi til upprisunnar, 44. því hefdi hann ei búist vid því ad þeir føllnu mundu upprísa, svo hefdi þad verid óþarfi og heimska ad bidja fyrir þeim føllnu. 45. Líka leit hann á þad, ad þeir sem sofna gudrækilega eiga sér geimda þá fegurstu (bestu) umbun: heiløg og gudleg hugsan! og svo gjørdi hann forlíkun fyrir þá dánu, ad þeir leystust frá þeirra syndum.

## 13. Kapítuli.

*Sigur unninn á Antíokus Evpator.*

1. Árid 149 frétti Júdas, ad Antíokus Evpator kjæmi móti Júda landi med mikinn her, 2. og med honum Lysías fóstri (hans) og ríkisstjórnari, og ad hvør þeirra hefdi Grískan her, 1 hundrad og 10 þúsundir fótgaungu lids, og 5 þúsundir og 3 hundrud riddaralids, 22 fíla, og 30 sigdvagna. 3. Menelaus fór til þeirra og eggjadi Antiokus med mikilli kjænsku, ekki sínu fødurlandi til góds, heldur af því hann gjørdi sér von um ad hann mundi verda settur til valda. 4. En Konúngur Konúnganna vakti reidi Antíoks móti skálkinum, og þegar Lysías tjádi (honum) ad þessi væri orsøk allrar ógjæfunnar, skipadi hann ad fara med hann til Beroa, og aflífa eins og þar var sídur. 5. En þar er turn 50 álna hár, fullur af øsku, sá hefir (organon) maskínu allt um kríng sem hángir nidur í øskuna. 6. Þadan hrinda allir þeim nidur í daudann, sem gjøra sig seka í kirkju ráni eda í einhvørjum ødrum stór glæp. 7. Á þennann hátt vard sá a) gudíausi Menelaus ad deya b), og nádi ei hlutdeild í jørdunni ølbúngis ad maklegleikum: 8. þared hann hafdi marga synd drýgt móti altarinu, hvørs eldur og aska var hvørtveggja heilagt, fann hann sínn dauda í øskunni.

9. En Konúngurinn kom, illur í skapi, og vildi hafa í frammi vid Gydínga þad versta, sem í tíd fødur hans hafdi gjørst þeim til handa. 10. Þá Júdas frétti þad, baud hann fólkinu ad ákalla Drottinn dag og nótt, ad hann, ef nokkurn tíma ádur, þá og nú, lidsinnti þeim, sem nú skyldi sviptast þeirra løgmáli, fødurlandi

V. 7. *a.* Eiginl: laganna yfirtrodslumadur. *b.* Likl: hann bó í fluginu, ádur hann kom á jørd.

og heilaga musteri, 11. og léti ekki það fólk, sem einmidt fyrir skømmu var lifnad vid, komast á vald vidbjódslegra heidíngja. 12. Þegar allir høfdu med einum huga þetta gjørt, og grátbænt þann miskunsama Drottinn med tárum, føstum og knéfalli í þrjá daga óaflátanlega, kalladi Júdas þá og baud þeim til sín ad koma. 13. Og sem hann var einn á fundi hjá øldúngunum, var það hans ráð, ad hann skyldi leggja af stad, ádurenn Kóngs herinn kæmi inn í Júdeu og tæki stadinn, og med Guds hjálp láta sverfa til stáls. 14. Hann fól veraldarinnar skapara umhyggjuna, og áminnti sína menn ad berjast med hugprýdi allt fram í daudann fyrir løgmál, musteri, stad, ødurland, og ríkisstjórn, og setti herbúdir sínar hjá Modein. 15. Hann gaf sínum mønnum þetta einkénnis ord: Sigur af Gudi, og rédist á Kóngs tjaldid um nóttina med þeim útvøldu røskustu úngu mønnum, og feldi í herbúdunum næstum 4 þúsund manns og þeim fremstu af fílunum, med fólkinu sem var í húsinu, bætti hann vid; 16. og eptir ad þeir høfdu komid ótta og hrædslu um allar herbúdirnar, héldu þeir þadan med sigri. 17. En þetta skédi hér um bil í døgun, fyrir vernd Drottins, sem veitti honum adstod.

18. Eptir ad Kóngur hafdi feingid ad kénna á dirfsku Gydínganna, reyndi hann til ad vinna landsplátsin med snidugleika. 19. Og hann fór á móti Betsúru sem var sterkt vígi Gydínga, en hafdi ósigur, og var lúbarinn og misti mikid lid. 20. En þeim umsetnu sendi Júdas inn (í stadinu) það sem þeim lá á. 21. Þennan leyndardóm opinberadi Rodokus, madur nokkur í Júda her, óvinunum; en hans var leitad, hann nádist og var innilæstur. 22. Kóngurinn fór nú í annad sinn ad semja vid þá sem umsetnir voru í Betsúru, baud frid og fékk frid, fór burt, hitti Júdas og hans menn, var sigradur, 23. frétti ad Filippus, sem hann hafdi eptirskilid í Antíokíu, sem ríkisins forstødumann, væri fallin frá hlýdni vid sig, vard óttasleginn, bad Gydínga um frid, vægdi til vid þá, vann eid ad øllum sannsýnilegum skilmálum, sættist og frambar fórn, heidradi musterid, og sýndi stadnum mannkjærleika, 24. tók vel vid Makkabeus, og gjørdi hann ædsta høfudsmann frá Tólómais til Gerrene. 25. Hann kom til Tólómais. Þeir í Tólómais undu illa þessum samníngi, því þeir vóru illir út af skilmálunum, og vildu ónýta þá, (ef kostur hefdi verid). 26. Þá gékk Lysías fram á þíngvøllinn, vardi eptir megni (søkina), færdi heim sannin, sefadi, gaf góð ord, fór til baka til Antíokíu. Svona gékk Kóngsins herfør og heimfør.

## 14. Kapítuli.

Alkimus áleitni. Nikanors herfør, svik í trigdum.

1. Ad þremur árum lidnum spurdi Júdas, ad Demetríus Selevksson væri kominn á høfn í Trípolis med mikinn her og skipaflota, 2. ad hann hefdi nád undir sig landinu og drepid Antíokus og fóstra hans. 3. En Alkimus nokkur, sem ádur hafdi verid ædsti prestur, og viljuglega flekkadi sig á óreglu tímanum, og sem sá, ad hvørnig sem færi, væri sér eingin heilla von, og adgángur til þess helga altaris stædi sér ekki framar opinn, 4. gékk fyrir Kóng Demetríus árid 151, og færdi honum gullkrans og pálmavidargrein og þar ad auki vidsmjørsvidargrein sem sýndist vera ein af musterisins. En þann sama dag héldt hann sér enn nú í taumi. 5. En hans fásinna fékk hentugt tækifæri, þá hann var af Demetríus kalladur á rádssamkomuna og spurdur hvada sinnislag og rádagjørdir Gydíngar nú hefdu. Hér til svaradi hann. 6. Þeir af Gydíngum sem kallast Asídear, hvørra foríngi Júdas Makkabeus er, ala á strídi og uppreisn, og láta ei ríkid hafa

frid, 7. því er eg, sviptur þeirri tign er eg var borin til, eg meina höfudprests embættinu, híngad kominn, 8. fyrst og fremst af hollustu vid Kóngsins málefni, og sídan líka minum landsmönnum í hag; því sökum fásinnu þeirra nefndu manna, fer þjód vorri æ meir og meir hnignandi. 9. Afla þér nú, ó Konúngur, sannfæríngar um allt þetta, og veittu ásjá voru landi og voru adþrengda fólki, samkvæmt þeim milda mannkjærleika, er þú audsýnir öllum. 10. Því svo leingi sem Júdas er á lífi, er þad ómögulegt, ad ríkid fái frid.

11. En er hann hafdi þetta mælt, leitudust hinir adrir vinir Kóngsins vid, sem var gramt í gédi vid Júdas, ad uppæsa Demetríus enn meir. 12. Þá lét hann Nikanor, sem var höfudsmadur yfir fílunum, koma fyrir sig, gjördi hann hershöfdíngja í Júdalandi og sendi hann frá sér, 13. og skipadi honum ad drepa Júdas sjálfann, og tvístra hans flokki, og setja Alkimus höfudprest þess mikla musteris. 14. Þeir af heidíngjum sem fyrir Júdas höfdu flúid úr Júdalandi, hlupu nú hópum saman til Nikanors, því þeir bjuggust vid, ad Gydínga ógjæfa og slisfarir mundu verda þeim ad gjæfu.

15. En þegar Gydíngar fréttu Nikanors herför og árás heidíngja, strádu þeir mold yfir sig, og grátbændu þann, sem hafdi útvalid sitt fólk ad eilífu, og ætíd med bersýnilegri adstod annast sína eign. 16. Ad bodi síns fyrirlida tóku þeir sig upp þadan, og hittu hina (óvinina) hjá þorpinu Dessau. 17. Símon, bródir Júda, bardist vid Nikanor, en leid nokkud manntjón, af sviplegri hrædslu fyrir óvinunum. 18. Samt fór þad svo, þared Nikanor spurdi hvad hraustur Júdas var og hans menn, og hvílíka hugprýdi þeir létu í ljósi í bardögum fyrir födurlandid, óttadist hann ad láta til stáls sverfa. 19. Því sendi hann Posidóníus og Teódótus og Mattatías, til ad bjóda og þiggja frid. 20. Þegar menn leingi höfdu yfirvegad þessa sök, og fyrirlidarnir höfdu lagt allt nidur fyrir fólkinu, og allir voru ordnir á einu máli, samþikktist sáttargjördin. 21. Og þeir tiltóku dag á hvörjum þeir einir skyldu finnast; og sem hann kom, settu menn á bádar hendur sinn stól handa hvörjum. 22. En Júdas hafdi sett vopnada menn á hentugann stad, sem skyldu vera vidbúnir, svo óvinirnir gjæti ei sviplega haft nein svik vid. Og svo ræddust þeir vid fridsamlega og kom allt ásamt med þeim. 23. Nikanor stadnæmdist nú í Jerúsalem og adhafdist eingin rángindi, heldur lét frá sér sinn mikla her. 24. Hann hafdi Júdas ávallt í heidri, og var af hjarta manninum unnandi. 25. Hann rédi honum ad gipta sig, og afla barna. Hann gipti sig (líka), hafdi velgeingni, naut lífsins.

26. En þá Alkimus spurdi þeirra innbyrdis vinskap og sáttargjördina þeirra í milli, þótti honum vænkast rádid og kom til Demetríus og sagdi honum, ad Nikanor inni honum í óhag; því hann væri búinn ad lofa Júdasi, ríkisins óvin, ad hann skuli verda sinn eptirmadur. 27. Kóngi gramdist þetta, og tilegndur af rógi skálksins, skrifadi hann Nikanor og sagdi sér líkadi ei sáttargjördin, og skipadi ad Júdas skyldi sem skjótast sendast sem fángi til Antíókíu. 28. Þá Nikanor fékk þetta ad sjá, vard hann hissa og undi því illa, ad hann skyldi verda ad rjúfa sættina, þegar madurinn hafdi þó ekkért rángt adhafst. 29. En þared hann dirfdist ei ad brjóta móti konúnginum, beid hann tækifæris ad koma þessu fram med kjænsku. 30. En Makkabeus tók eptir því, ad Nikanor fór ad verda óvingjarnlegur vid hann og í venjulegu vidmóti ókurteisari, og fór því ad gruna, ad slík óvinsemi bodadi ekkért gott, safnadi þess vegna ei allfáum af sínum mönnum, og fól sig fyrir Nikanor.

31. Þegar þessi sá að madurinn hafdi svo heidurlega farid á bak vid sig, gékk hann í það mikla og heilaga musteri, medan prestarnir voru að frambera tilhlýðandi fórnir, og baud að framselja manninn. 32. En er þeir svørudu og løgdu eid vid, að þeir vissu ei hvar sá væri sem hann leitadi að: 33. hóf hann upp sína hægri hønd til musterisins, og sór: Ef þér framseljid mér ekki Júdas bundinn, svo skal eg nidurrífa í botn og grunn þetta musteri, og fella altarid og setja á þessum stad (Víngudnum) Bakkus prýdilegt musteri. 34. Ad svo mæltu gékk hann burt. Þá hófu prestarnir sínar hendur til himins og ákølludu þann, sem ætíd verndar vort fólk og søgdu svo: 35. Drottinn, þú sem einkis hlutar þarfnast, þér hefir þóknast að musteri þíns bústadar skyldi vera vor á medal, 36. svo vidhaldt þú nú, allra heilagasti herra, að eilífu óflekkudu þessu nú rétt nýlega hreinsada húsi!

37. En Nikanor var vísad á mann nokkurn, Nasís (að nafni), einn af øldúngunum í Jerúsalem, sem elskadi borgina og hafdi ágjætt mannord og vegna sinnar góðvildar, var kalladur fadir Gydínganna. 38. Því hann hafdi á fyrri tímum komid til vegar adgreiníngar hætti Júdadómsins og framseldt líkama og sál fyrir Gydínga trúna med allri stadfestu. 39. Þared Nikanor vildi nú sýna, hvilíkt hatur hann hefdi á Gydíngum, sendi hann meir enn 5 hundrud strídsmenn, til að grípa hann. 40. Því hann hugsadi, að þá hann tæki þennann fastann, ynni það hinum (ødrum) mikid tjón. 41. En er flokkurinn vildi taka turninn, ruddist inn í dyr forgardsins og lét koma med eld, til að kveikja í dyrunum, og menn einmidt ætludu að handtaka hann, lagdi hann sig í gégn med sverdi, 42. því hann vildi heldur deya med hugprýdi enn komast á vald þeirra ógudlegu og verda fyrir misþirmíngum, sem hans edallyndi hafdi ei verdskuldad. 43. En þared hann hafdi ekki, af því hættuna bar svo fljótt að hendi, lagt sig vel í gégn og hópurinn nú þegar ruddist inn um dyrnar, hljóp hann sem hetja til múrsins og steypti sér kallmannlega nidur í fólks (þyrpínguna). 44. Og sem það hopadi strax frá og bil vard á milli, féll hann midt á það auda rúm. 45. Enn var hann lifandi; og upptendradur af gédi stód hann upp, þó blódid rinni í lækjum og sárin væru mikil, og hljóp midt um fólksþyrpínguna uppá brattan klett, 46. tók, þó allt blód væri úr honum runnid, innislin út med bádum høndum, kastadi þeim á fólkid, og í því hann ákalladi herra lífsins og andanna, og bad hann að géfa sér þau aptur á sínum tíma, uppgaf hann sinn anda, á þennan hátt.

## 15. Kapítuli.

Nikanor er sigradur og deyr.

1. En er Nikanor heyrdi að Júdas og hans menn héldu til á Samaríu fjøllum, einsetti hann sér að yfirfalla þá á hvíldardegi, (því hann héldt það) hættulaust. 2. Þeir Gydíngar, sem neyddir voru til að fara med honum, søgdu: fyrirfar þeim ei svo hørmulega og grimmilega, heldur haf í heidri þann dag, sem sá alvoldugi hefir helgad. 3. En sá vitstola (madur) spurdi: er nokkur herra á himnum, sem bodid hefir að halda helgan hvíldardaginn? 4. Þeir svørudu: það er sá lifandi Gud sjálfur, Herrann á himnum, sem bodid hefir að halda helgann þann sjøunda dag. 5. En hann mælti: og eg, herra á jørdunni, býd að taka vopn, og gégna kóngsins þjónustu. Þó tókst honum ekki að framkvæma þetta svívirdilega áform.

6. Nikanor hóf sig sannarlega hátt med ofmetnadi, og ætladi sér að hrósa fullkomnum sigri yfir Júda og hans mønnum. 7. En Makkabe-

V. 38. Komid Gydingum til að blanda sér ei saman vid adrar þjódir í trúarbragda søkum.

us hreysti því óaflátanlega, med allri von, ad hann mundi fá hjálp frá Drottni, 8. og áminnti sína menn, ad hrædast ekki þá heidíngja sem ad þeim færu, heldur muna til þess lidsinnis, sem þeir hefdu ádur feingid af himni, og ad vona líka nú, ad þeim mundi veitast sigur og hjálp af þeim almáttuga. 9. Hann huggadi þá med løgmálinu og spámønnunum, og minnti þá á orusturnar, sem þeir høfdu unnid og gjørdi þá ørugga. 10. Hann hresti upp þeirra hug, og eggjadi (til hreysti), med því ad setja þeim ásamt fyrir sjónir heidíngjanna svik og meinsæri. 11. Hann vopnadi einn og sérhvørn þeirra, ekki svo med hlífd skjalda og spjóta, sem huggun hressandi orda, og þá hann héradauki sagdi þeim draum, trúverduga sýn, svo gladdi hann þá alla.

12. En þessa manns sýn var þessi: Onías (sagdi hann) sem verid hafdi høfudprestur, vænn og rádvandur madur, sídsamur í hegdan, hógvær í sidum, fómasamlegur í tali, og sem frá æsku hafdi lagt stund á alla mannkosti: þessi breiddi út sínar hendur um nóttina og bad fyrir øllu Gydíngafólki. 13. Sídan kom í ljós framúrskarandi madur nokkur gráhærdur og dýrdlegur, umkríngdur furdanlegri og vegsamlegri hátign; 14. þá mælti Onías: þessi er brædra vinurinn, sem bad svo mikid fyrir fólkinu og þeirri heiløgu borg, Spámadur Guds, Jeremías; 15. og hefdi þá Jeremías rétt fram høndina og feingid Júdas gullbúid sverd, og í því hann rétti þad ad honum, kallad þetta til hans: 16. tak þetta heilaga sverd sem gjøf frá Gudi, med því muntu fella óvinina.

17. Hresstir af þessum Júda føgru ordum, sem géta vakid til hreysti og uppørfad hjørtu úngra manna, einsettu þeir sér ad setja ekki herbúdir, heldur rádast í móti (óvinunum) med karlmennsku, og berjast med allri hreysti, og láta sverfa til stáls, þared borg og helgidómur og musteri væri í hættu. 18. Því orusta fyrir konur og børn, fyrir brædur og náúnga lá þeim minna á hjarta, mesta og fyrsta umhyggjan vidvék því helgada musteri. 19. En þeir sem eptir høfdu ordid í borginni, voru ei heldur í litilli ángist, þeir voru órólegir, útaf þeim (fyrir hendi verandi) bardaga, útá landinu. 20. Þegar nú allir bjuggust vid þeirri nálægu úrlausn, og óvinirnir voru farnir ad hópa sig, og farid var ad fylkja lidinu, og setja fílana á hentuga stadi, og skipta riddaralidinu til beggja fylkíngar armanna, 21. og Makkabeus sá nálægd fjøldans, þann margbreytilega vopna útbúnad og ólmleika fílanna, hóf hann upp sínar hendur til himins, og ákalladi Drottinn, þann alskygna, sem gjørir furduverkin, sannfærdur um, ad sigurinn kémur ei fyrir vopnin, heldur ad þessi veiti verdugum sigurinn, eptir því sem hjá honum er álíktad. 22. En hann ákalladi hann med eptirfylgjandi ordum: þú Drottinn sendir þinn eingil á døgum Esekía Júda kóngs, og deyddir af Sankeribs umsáturs her, hartnær 185 þúsundir; 23. svo send og nú, himinsins herra, gódan eingil fyrir oss, til skélfíngar og hrædslu (óvinunum). 24. Skélkist þeir af stærd þíns armleggs, sem med lastmælum gánga fram móti þínu heilaga fólki! Og þar med hætti hann.

25. Nikanors her fór nú fram med trumbum og strídssaung; 26. Júdas og hans menn þarámót rédust á óvinina bidjandi og grátandi. 27. Þeir børdust med høndunum, og bádu Gud med hjørtunum, og løgdu ad velli ei færri enn 35 þúsundir óvinanna, og gløddust mjøg af Guds bersýnilegu hjálp. 28. Þegar orustan var úti, og þá þeir snéru til baka med føgnudi, fundu þeir Nikanor fallinn í hans herklædum. 29. Þá upp kom óp mikid og is, og þeir lofudu Drottinn á fedra sinna túngu. 30. Og sá látid hafdi líkama og sál í sølurnar í því hann

bardist fremstur í flokki fyrir sína medborgara, sem hafdi audsýnt elsku sínum landsmønnum, baud ad høggva høfudid af Níkanor, og hønd-ina med øxlinni og fara med þad til Jerú-salem. 31. Þegar hann var þar kominn, kalladi hann saman sína landsmenn, skipadi prestunum nidur fyrir framan altarid, og lét setulidid koma úr kastalanum. 32. Þá sýndi hann þess ógudlega Níkanors høfud og gud-lastarans hønd, sem hann hafdi med ofmetn-adi hafid móti helgidómi þess almáttuga. 33. Hann skar og túnguna úr þeim gudlausa Nik-anor, og baud ad kasta henni fyrir fugla í smábitum og heingja upp þá óhreinu (ógud-legu) hønd fyrir framan musterid. 34. Allir prísudu nú hátt (svo ópid sté) til himins, þann hjálpsama Drottinn, og søgdu: lofadur sé sá sem vardveitt hefir sinn stad óflekkadann! 35. Níkanors høfud heingdi hann uppá kastal-ann, svo þad væri gløggt og øllum audsætt merki Drottins hjálpar. 36. Og þeir einskordudu allir med samhljóda atkvædum ad láta ei þennan dag vera einkennislausann, heldur ad halda helgann þann 13da dag í þeim 12ta mánudi, sem heitir í Sýrlendsku máli Adar, daginn á undan Mardokeus degi.

37. Fyrst ad þannig er nú komid fyrir Níkanor, og Hebreskir uppfrá þessu hafa gétad haldid stadnum, vil eg hér enda mína frásøgu. 38. Hafi eg sagt hana vel, og eins og søgu á ad segja, þá er þad einmidt þad sem eg vildi sjálfur; en ef illa og í medal-lagi, svo gjørdi eg þó þad sem eg gat. 39. Eins og þad er ekki lystilegt ad drekka ein-tómt vín, og eins eintómt vatn aptur; heldur eins og vín blandad med vatni er þægilegt, og veitir unadsamlega nautn, svo skémtir og vel samin saga eyrum þeirra, sem søguna lesa. Þetta sé nidurlagid.

# Greinir

vidvíkjandi

# Esters Bók.

## 1. Kapítuli.

(Eptir 13da v. í 3dja Kapít).

1. En svona hljódadi bréfid: Sá mikli Konúngur, Asśverus skrifar þetta þeim hundrad sjø og tuttugu høfdíngjum landanna, frá Indí-um til Mórlands og þeim undirgéfnu land-gjætslu mønnum: 2. þó eg drottni yfir mørgum þjódum, og eigi allann heiminn, hefi eg ekki þad oftraust, ad stæra mig af mínu valdi, heldur stjórna eg ávalt mildilega og med spekt, gjøri líf undirsátanna ætíd fridsamlegt, vidheld ríkinu rólegu, og svo ad um þad má ferdast enda á milli og held vid fridnum sem allir girnast. 3. En þá eg spurdi mín ráda-neyti, hvørnig þessu yrdi til vegar komid, tjádi Haman oss, sem er ad vitsku framúrskarandi og reyndur ad óbreitanlegum gódum þeinkíng-ar hætti og føstum trúskap, og geingur oss

næst ad tign í ríkinu, ad óvinsamt fólk nokkud væri samblandad vid allar þjódir jardarkríngl-unnar, sem hefdi løg frá brugdin allra þjóda (løgum), og fyrirliti ætíd Kóngsins bod, svo ad vor óadfinnanlega ríkisstjórn gjæti ekki stad-ist. 4. Þared vér nú høfum ordid þess áskin-ja, ad þetta eina fólk liggur ætíd í hári sam-an vid alla menn, lifir eptir útlendum løgum, er frábitid vorri ríkisstjórn, og gjørir mikinn skada, svo ríkid gétur ei feingid ró, þá høfum vér tilsett, ad allir þeir, sem Haman, forstødu-madur ríkisstjórnarinnar, og vor annar fadir, tilnefnir í sínu bréfi, séu frá rótum upprættir, ásamt konum og børnum, med sverdum þeirra óvina, án allrar vorkunar og vægdar þann 14da í 12ta mánudi, Adar, þessa árs, svo ad þeir, leingst af og enn nú, illa þeinkjandi fari á einum degi til heljar, med ofbeldisfullum daudddaga og láti oss hér eptir ætíd hafa ró-lega og farsæla ríkisstjórn.

## 2. Kapítuli.

(Sjá Esters Bók 4, 17).

1. Og Mardokeus bad til Drottins, minnt-ist allra Drottins verka og sagdi: Drottinn, Drottinn, alvoldugi Konúngur, í þínu valdi er allt, og einginn gétur þér mótstødu veitt, þeg-ar þú vilt frelsa Israel. 2. Þú hefir gjørt himin og jørd, og allt þad dásamlega undir himninum. 3. Þú ert allra Drottinn, og einginn gétur þér, sem ert Drottinn, mótistad-id. 4. Þú þekkir allt, þú veitst Drottinn, ad eg hefi ei þad gjørt af ofmetnadi né drambsemi né ærugirnd, ad eg fell ei fram fyrir þeim drambláta Haman. Því gjarna vildi og kyssa, Israel til heilla, hans skósóla (fótsóla). Heldur hefi eg gjørt slíkt svo eg sýndi eingum manni meiri heidur enn Gudi; og fyrir eingum mun eg nidurkrjúpa, nema fyrir þér, minn Drott-inn, og þannig breiti eg, ei af drambsemi. 5. Og nú Drottinn Gud, Konúngur, Gud Abra-hams, spara þitt fólk! Því þeir hafa vort tjón í áformi, og leitast vid ad afmá þína erfd, sem þú hefir haft frá upphafi. 6. Afræk ekki þinn erfda hlut, sem þú leystir, þér til handa, úr Egyptalandi! 7. Heyr mína bæn, og vertu nádugur þinni eign, og snú vorri sorg í føgn-ud, svo ad vér lifum og sýngjum, Drottinn, þínu nafni lof, og afmá ekki þeirra munn, sem prísa þig, Drottinn! 8. Og Israelsmenn køll-udu af øllum mætti, því þeirra daudi var þeim fyrir augum.

## 3. Kapítuli.

Esters bæn.

1. Og Drottníngin Ester leitadi hælis hjá Drottni, því hún var gripin af daudans áng-ist. 2. Og hún lagdi af sér sín dýru klædi, og íklæddist rauna- og sorgar-búníngi, og í stadinn fyrir oflætis salve, huldi hún sitt høf-ud med øsku og dufti, og þjádi mjøg sinn lík-ama, og allt sem (ádur) hafdi verid hulid med hennar dýra skarti, þad huldi hún nú med flétt-um síns hárs (sundurleystum). 3. Og hún bad til Guds, Drottins, Israels Guds og mælti: 4. Drottinn, þú einn ert vor Konúngur, hjálpa mér ysirgéfinni, sem eingan hjálparmann hefi, nema þig; því háskinn vofir yfir mér. 5. Eg hefi heyrt frá því eg fæddist í ætt fødur míns, ad þú, Drottinn, hafir valid Israel af øllum þjódum, og vora fedur af øllum þeirra forfedrum, til eilífrar eignar, og þú hafir vid þá efnt, þad sem þú hétst. 6. En nú høfum vér syndgad fyrir þér, og þú hefir géfid oss á vald vorra óvina, af því vér høfum heidrad þeirra Gudi. Þú ert réttlátur, Drottinn! 7. En nú láta þeir sér ekki nægja beiskju vors þræl-dóms, heldur hafa þeir (svarid vid godin) lagt sínar hendur á hendur sinna goda, ad ó-nýta atkvædi þíns munns, og afmá þína eign,

og niðurþagga þeirra munn sem lofa þig, og tortína heiðri þíns húss og altaris, og opna munn þjóðanna til lofgjørðar þeirra einkisverðu skurðgoða veldis, og svo að dáðst verði að hoðlegum Konúngi að eilífu. 8. Géf ei þinn sprota þeim, sem ekkért eru, og lát þá ei hæðast að voru falli, heldur snú þeirra ráðagjørð til baka á þá sjálfa, og gjør þann til skammar, sem yfir oss drottnar. 9. Vertu minnugur, Drottinn! láttu þekkja þig á tíma vorrar þreyngíngar, og géf mér hug, Konúngur Guðanna og Herra alls veldis! Legg í minn munn lagleg orð frammi fyrir ljóninu, og snú þess hjarta til haturs við vorn óvin, honum og hans líkum til eyðileggíngar. 10. En frelsa oss með þinni hendi, og hjálpa mér yfirgéfinni, og sem eingann hefi nema þig, Drottinn! 11. Þú þekkir allt, þú veitst að eg hata heiður hinna guðlausu, og hefi viðbjóð á ráðahag við þá óumskornu og hvørn einn útlendíng. Þú þekkir þá þvíngun sem eg þoli, að eg hefi ímugust á drambseminnar merki sem er á mínu høfði, á þeim døgum er eg læt mig opinberlega sjá; eg hefi viðbjóð á því sem óhreinum dúk, og ber það ei á døgum minnar hvíldar. Ekki hefir heldur þín ambátt matast við Hamans borð, né tekið hlutdeild í konúngsins veitslum, né drukkið af fórna víninu. Og þín ambátt hefir ekki gladt sig, frá degi sinnar upphafníngar og allt til þess nú, nema við þig Drottinn, Abrahams Guð! 12. O Guð, þú sem sterkur ert fram yfir alla, heyr þú bæn þeirrar vonlausu, og losa oss úr hendi illvirkjans, og frelsa mig frá minni hræðslu.

## 4. Kapítuli.

(Sbr. Est. 5 Kapít. 1—2 v).

3. Og það skéði á þriðja degi þá hún hætti að biðjast fyrir, að hún afklæddist guðsdýrkunar búníngnum a) og fór í sitt skart. 4. Og sem hún var orðin skrautbúin, ákallaði hún þann alvalda b) Guð og frelsara, og tók báðar herbergis meyarnar með sér, og studdi sig við aðra eins og sælkéri, en hin gékk á eptir og héldt upp faldi hennar klæða. 5. Hún var rjóð sem í blóma sinnar fegurðar, og hennar andlit var gladlegt sem til ástar lokkandi; en henni var þúngt fyrir hjarta af hræðslu. 6. Og þá hún var inngeingin um allar dyrnar, nam hún staðar frammi fyrir Konúnginum; en hann sat á sínum Konúnglega hástól, í øllum klæðnaði viðhafnar sinnar, sem var alþakin gulli og gimsteinum. Og hann var mjøg óttalegur. 7. Og hann hóf upp sitt andlit, tindrandi af hátign, og leit reiðuglega til hennar. Þá leið Drottníngin niður, og skipti litum, í aungvit, og hallaði sér að høfði herbergja meyarinnar, sem undan gékk. 8. Þá snéri Guð sinni Kóngsins til gjæðsku, og áhyggjufullur støkk hann úr hásætinu, og tók hana sér í faðm, þángað til hún raknaði við; og síðan hresti hann hana upp með vinsamlegum orðum og mælti til hennar: hvað er (þetta), Ester? Eg er bróðir þinn, vertu með góðu gédi, þú skalt ei deya; því það er (að eins) almennilegt forboð vort; 9. kom þú (nær)! 10. Og hann tók gullsprotann og lagði á hennar háls, og kyssti hana, og mælti: tala þú við mig! 11. Og hún sagði: Herra, þú komst mér fyrir sjónir sem Guðs eingill og mitt hjarta skélkaðist af ótta fyrir þinni hátign, 12. því þú ert furðanlegur herra, og þitt andlit (fullt af yndislegleika) yndissamlegt. 13. Og sem hún talaði, leið hún aptur í aungvit. 14. Og Konúngi varð bilt við, og allir hans þjónar leituðust við að hressa hana.

---

V. 3. *a.* Þeim sorgarbúníngi sem hún klæddist meðan hún var að biðja. V. 4. *b.* Eiginl: sem litur yfir alla.

## 5. Kapítuli.

Kóngs bréfid.

Á 4da ári Tólomeus Kóngs og Kleopøtru, høfdu þeir Dositeus, (sem þóttist vera prestur af Leví ætt) og hans son Tólomeus, þetta Púrims bréf, (medferdis til Egyptalands) og søgdu, ad Lysímakkus, sonur hins sama Tólomeus, hefdi útlagt þad í Jerúsalem a).

1. Sá mikli Koníngur Artaserkses heilsar þeim hundrad tuttugu og sjø Lénsherrum, høfudsmønnum landanna frá Indíalandi til Mórlands, og øllum sem oss vilja vel! 2. Margir, sem fyrir ofmikla gjædsku sinna velgjørara, hafa komist til mikilla metorda, eru ordnir því ofmetnadar fylltri, og leitast ei einasta vid ad gjøra skada vorum þegnum og géta ekki þolad sitt lán, heldur smída brøgd móti eigin velgjørurum. 3. Og þeir géfa ei ad eins vanþakklætis dæmi medal mannanna, heldur hefja sig upp med ofmetnadi, eins og þeir sem einga velgjørd hafa þeigid, og ætla sér samt ad umflýa hegnandi réttlæti þess alvalda Guds. 4. Margsinnis hafa og margir af þeim sem valdid hafa í høndum, og hvørra skylda þad er, ad annast málefni vina sinna, talid þá á ad gjøra sig seka med þeim í saklausu blódi, og steypt þeim í óbætanlega ógjæfu, þared þeir hafa komid flatt uppá grunlausa velvild Drottnandans, med lygafullri vondskunnar kjænsku. 5. Sjed géta menn þetta, ekki eins vel af þeim eldri søgum, sem vér høfum framlátid, sem af því, er þér hafid ydur fyrir augum, ef athuga viljid þau ógudlega fullgjørdu áform fyrir drápgirni ómaklegra stjórnenda. 6. Vér hljótum því vel ad gjæta afleidínganna, til þess ad géta haldid ríkinu fyrir alla menn í óróskudum fridi, 7. í því vér gjørum tilbreitíngar, og dæmum jafnan med mildi þad, sem oss kémur fyrir sjónir. 8. Eins og ad Haman Amadatsson, makedoniskur madur, sannarlega óvidkomandi Persa blódi, og mjøg fráleitur vorri gjædsku, sem vér veittum vinsamlega móttøku, þá hann fékk ad reyna þann mannkjærleika er vér audsýnum øllum þjódum, svo algjørlega, ad hann var kalladur vor fadir, og ávalt af øllum heidradur, sem sá er gékk næst Kónginum. En hann þoldi ekki upphefdina, og leitadist vid ad ræna oss ríki og lífi, 9. og heimti med hrekkvísum brøgdum líftjón vors frelsara og velgjørara Mardokeus og þeirrar óadfinnanlegu drottníngar Ester, samt þeirra gjørvalla fólks. Því á þennann hátt gjørdi hann sér von um ad géta yfirfallid oss, þegar þau voru frá oss tekin, og ad koma Persa herradæmi til Makedoniskra. 10. En vér finnum ad þeir Gydíngar sem framseldir voru af þeim vitstola manni til eydileggíngar, eru saklausir, lifa eptir þeim réttvísustu løgum, og eru synir þess ædsta lifanda Guds, sem hefir vardveitt oss og vorum forfedrum ríkid í fegursta ásigkomulagi. 11. Þér gjørid nú vel ad hlýda ekki því bréfi sem Haman Amadatsson sendi. 12. Því þann, er slíkt gjørdi, er búid ad heingja med allri hans ætt úti fyrir Súsans borgarhlidi, því sá alvaldi Gud hefir snøgglega goldid honum makleg laun. 13. En afskrift af þessu bréfi skulud þér opinberlega uppfesta á øllum stødum, og láta Gydínga lifa eptir þeirra løgum, 14. og styrkja þá, ad þeir géti hefnt sín á þeim, sem sýndu þeim fjandskap á neydarinnar tíma, þann 13da í 12ta mánudi, Adar, einmidt á þeim sama degi. 15. Þér skulud og med ydar ødrum hátídisdøgum halda þennan dag helgann med allri gladværd, svo hann sé nú og sídar meir, oss og øllum vel-

a. Í þeirri Grisku Bibl. er þetta vers næst á undan vitran Mardókeus sem hér á eptir kémur, og þar finnst þad og í þeirri Dønsku og fleirum. Nokkrir láta þad vera seinustu greinina.

þeinkjandi Persum til heilla, en hinum sem sitja á svikrádum vid oss, ófaranna minnismerki. 16. En hvør sú borg, og hvørt þad land, án undantekníngar, sem ei gjørir svo, skal med sverdi og eldi grimmilega eydilagt verda, og ei ad eins verda mønnum óadgeingilegt, heldur skal þad gjørast alla tíma ád vidbjód dýrum og fuglum.

## 6. Kapítuli.

1. Á ødru ári ríkisstjórnar þess mikla Kóngs Artaserkses, þann fyrsta í Nisan mánudi, dreymdi draum Mardokeus Jairsson Semeisonar, Kíssonar af Benjamíns ættkvísl, Gyðíng nokkurn, sem bjó í stadnum Súsan, mikinn mann, sem þjónadi í Kóngsins gardi. 2. En hann var einn af þeim herteknu, sem Nebúkadnesar Babels Kóngur, flutti frá Jerúsalem med Jekonja Júda Kóngi. Og þessi var hans draumur. 3. Sjá, þá voru óhljód (óp) mikil og ís, þrumur og jardskjálfti, skélfíng á jørdu. 4. Og sjá, tveir stórir drekar geingust á til ad strída og þeirra óhljód voru mikil, og af þeirra óhljódum æstust allar þjódir til strids, ad þær herjudu á fólk Grikkja. 5. Og sjá, þad var dagur dimmu og myrkurs, þreyngíngar og ángistar, mikillar eymdar og hrædslu á jørdu. 6. Og allt hid réttláta fólk vard mjøg óttasleigid, og hræddist sína ógjæfu og bjóst vid ósørum, og kalladi til Guds. 7. En vid þess kall spratt upp sem úr lítilli uppsprettu stór á, mikid vatn. 8. Og nú vard bjart, og sólin rann upp, og þeir aumu sigrudu, og drápu þá drambsømu. 9. Þegar Mardokeus nú vaknadi, sem hafdi dreymt og sjed hvad Gud hafdi áliktad ad gjøra, geymdi hann drauminn í sínu hjarta og vildi gjarnan allt til nætur hafa skilid hann.

## 7. Kapítuli.

(10. Kap. Est. v. 3).

1. Og Mardokeus sagdi: af Gudi er þetta skéd. 2. Því eg minnist míns draums, sem eg hafdi, um þessa atburdi, því allt er framkomid. 3. Sú litla uppspretta sem vard ad á, og (þar) var ljós og sól og vatn mikid; þá er Ester sú stóra á, sem Kóngurinn giftist, sem hann gjørdi Drottníngu. 4. En bádir drekarnir þad erum vid Haman. 5. Og þjódirnar eru þeir, sem samansøfnudust til ad afmá Gydínga nafn; 6. og mitt fólk, þad er Israel, eru þeir, sem kølludu til Drottins og urdu frelsadir. Og Drottinn bjargadi sínu fólki og frelsadi oss úr allri þessari óhamíngju. Og Gud gjørdi stór tákn og undur, hvílík ei hafa skéd medal þjódanna. Því gjørdi hann tvø hlutføll, eitt fólki Guds, annad øllum ødrum þjódum. Og þessi hlutføll komu á tíma og stund og degi dómsins fyrir Gud yfir allar þjódir. Og Gud minntist síns fólks, og gaf sínni erfd sigurinn. 7. Og þessir dagar skulu honum helgir vera í mánudinum Adar, sá 14di og 15di mánadarins, med hátídlegum samkomum og føgnudi og gladværd frammi fyrir Gudi hjá ættunum til eilífdar medal hans fólks Israels.

# Sagan

um

# Súsanna og Daníel.

1. Madur nokkur bjó í Babel sem hét Jójakim. 2. Hann tók sér konu, ad nafni Súsanna, Helkíadóttur, mikid fríða og gudhrædda. 3. Og hennar foreldrar voru réttlátir og kénndu dóttur sinni ad lifa eptir Mósis løgmáli. 4. Og Jójakim var mjøg ríkur madur, og hafdi lystigard nálægt sínu húsi. Til hans komu Gydíngar, af því hann var heidradur framar øllum. 5. Og tveir øldúngar af fólkinu voru settir dómarar það sama ár, um hvørja Herrann hefir sagt: ránglætid kémur út frá Babel, frá øldúngunum sem eru dómarar, sem þykjast stýra lýdnum. 6. Þessir voru jafnan í Jójakims húsi, og til þeirra komu allir sem mál høfdu med ad fara. 7. Og sem fólkid var geingid burt um middegid, kom Súsanna inn, og gékk um kríng í gardi mannsins síns. 8. Og bádir øldúngarnir sáu hana daglega gánga inn og gánga um kríng, og hjá þeim kviknadi girnd til hennar, 9. og sinni þeirra aflagadist, og augu þeirra beigdust frá (því rétta) svo þeir litu ekki til himinsins, né minntust réttra dóma. 10. Og søkum hennar voru þeir bádir plágadir; en hvørugur lét annann vita það sem þeir høfdu ad bera. 11. Því þeir skømmudust sín ad láta í ljósi sína girnd, ad þeir vildu med henni leggjast. 12. Og þeir bidu þess daglega med laungun, ad þeir feingju ad sjá hana. 13. Og þeir søgdu hvør vid annann: látum oss gánga heim, því matmálstími er kominn. 14. Og þeir geingu burt og skildust ad, en snéru vid aptur og hittust á ný; og sem þeir spurdust á um orsøkina, játudu þeir hvør ødrum sína girnd; og þá tiltóku þeir hvør med ødrum tímann, nær þeir gætu fundid hana eina.

15. Og það skédi, þá þeir bidu eptir hentugum degi, ad hún gékk, eins og í gjær og fyrradag med einum tveim þernum, og ætladi ad lauga sig í gardinum, því heitt var; 16. og einginn madur var þar nema øldúngarnir bádir sem høfdu falid sig og umsátu hana. 17. Og hún sagdi vid þernurnar: Sækid mér nú vidsmjør og sápu og læsid gardinum svo eg géti laugad mig. 18. Og þær gjørdu sem þeim var sagt og læstu dyrum gardsins, og geingu út um leyni dyr, til ad sækja, það sem þeim var bodid; og þær sáu ekki øldúngana, því þeir høfdu falid sig. 19. Og sem þernurnar voru burt geingnar, komu bádir øldúngarnir fram og hlupu ad henni og søgdu: 20. gardsins dyr eru læstar, og eingin sjer oss, og vér høfum girnd til þín: gjør nú vora vild og leggst med oss! 21. En ef ekki, skulum vér vitna móti þér, ad úngur madur hafi verid hjá þér, og ad þú þess vegna hafir sendt frá þér þernurnar. 22. Þá andvarpadi Súsanna og mælti: á allar hlidar þreyngir ad mér! Því ef eg gjøri þetta, svo er eg daudasek; og ef eg gjøri það ekki, svo mun eg ei sleppa úr ykkar høndum. 23. Þó vil eg heldur ekki gjøra það og falla í ykkar hendur, enn ad syndga fyrir Drottni. 24. Og Súsanna kalladi hárri raust; en bádir øldúngarnir kølludu líka móti

henni. 25. Og annar hljóp og lauk upp gardshurdinni. 26. En sem þeir í húsinu heyrdu kallid í gardinum, stukku þeir inn um leyni dyrnar til ad sjá hvad henni hefdi mætt. 27. Og þá øldúngarnir søgdu frá, urdu þénararnir aldeilis hissa, því aldrei hafdi slíkt heyrst um Súsønnu.

28. Og daginn eptir, þá fólkid kom saman til manns hennar Jójakims, þá komu øldúngarnir fullir af ránglætis áformi gégn Súsønnu svo hún yrdi aflífud. 29. Og þeir søgdu í fólksins áheyrn: sendid eptir Súsønnu, dóttur Hilkía, sem er kona Jójakims. Og menn sendu. 30. Og hún kom, hún og hennar foreldrar og børn og allir hennar ættíngjar. 31. En Súsanna var mjøg nettvaxin (snelleg) og fríd sýnum, 32. og þeir rángl átu skipudu ad taka af henni skýluna (því hún hafdi hulid sig med henni), svo ad þeir gætu mettast af hennar fegurd. 33. En náúngar hennar grétu og allir sem hana sáu. 34. Og bádir øldúngarnir geingu fram medal fólksins, og løgdu hendurnar á hennar høfud. 35. En hún grét og leit til himins, því hennar hjarta reiddi sig á Drottinn. 36. Og øldúngarnir søgdu: þegar vid vorum einir á gángi í gardinum, kom þessi inn (í hann) med tveimur þernum og læsti gardinum, og lét frá sér stúlkurnar. 37. Og til hennar kom úngur madur, sem hafdi falid sig þar og lagdist hjá henni. 38. En þared vid, sem vorum í horni gardsins, sáum misgjørnínginn, hlupum vid ad henni. 39. Og vid sáum þau liggja saman. En honum gátum vid ekki nád þared hann var sterkari enn vid, lauk upp hurdinni og støkk í burt. 40. En þessa gripum vid, og spurdum: Hvør var þessi úngi madur? en hún vildi ekki segja oss þad. Þetta vitnum vid.

41. Og þeir sem vóru á þínginu trúdu þeim, svo sem øldúngum fólksins og dómurum og dæmdu hana til dauda. 42. En Súsanna kalladi med hárri raust og mælti: O eilífi Gud! þú sem þekkir þad sem er hulid, þú sem sjer allt ádur enn þad verdur til, 43. þú veitst ad þessir hafa borid falskann vitnisburd á móti mér! og sjá, eg dey, án þess ad eg hafi gjørt nokkud af því, sem þeir svo vondskulega skulda mig fyrir. 44. Og Drottinn heyrdi hennar raust. 45. Og sem hún var leidd til lífláts, uppvakti Gud helgann anda úngs manns nokkurs, sem hét Daníel, 46. og hann kalladi hárri rødd: eg er saklaus af þessu blódi. 47. En allt fólkid snéríst ad honum og mælti: hvad er þad sem þú segir? 48. En hann gékk midt á medal þeirra og mælti: eru Israelssynir svona heimskir? án þess ad ransaka, og án þess ad hafa feingid vissu, hafid þér dæmt til dauda Israels dóttur? 49. Snúid aptur til dómsins, því þessir hafa borid falsvitni á móti henni! 50. Þá snéri allt fólkid aptur skjótlega. Og øldúngarnir søgdu vid hann: settu þig hér hjá okkur, og segdu okkur til, fyrst Gud hefir trúad þér fyrir dómara embættinu. 51. Og Daníel sagdi til þeirra: skiljid þá ad, svo lángt sé í milli þeirra; eg skal þá yfirheyra þá.

52. En þegar búid var ad skilja þá, kalladi hann annan þeirra og sagdi til hans: þú afgamli skálkur! nú koma þínar syndir, sem þú hefir ydkad, þér í koll, 53. þá þú sagdir upp rángláta dóma og áfeldir þá saklausu, en fríkénndir þá seku, en þótt Gud hafi sagt: þann saklausa og réttláta skalt þú ekki deyda. 54. Hafir þú nú séd þetta, þá seg: hjá hvada tré sástu þau, hvørt hjá ødru? hann svaradi: hjá Mastirtré nokkru. 55. En Daníel mælti: rétt hefir þú logid gégn þínu eigin høfdi. Nú þegar kémur eingillinn med Guds atkvædi og hann mun kljúfa þig sundur í midju í tvent. 56. Og hann lét fara í burt med hann, og baud ad koma med hinn og sagdi til hans: þú Kanaans en

ekki Júda nidji! frídleikinn hefir blekkt þig, og girnd þíns hjarta umsnúid þér. 57. Svona hafid þid farid med Ísraels dætur, og þær hafa fyrir hrædslu sakir samlagast ykkur; en þessi Júda dóttir þoldi ekki ykkar athæfi. 58. Seg mér nú: hjá hvada tré hittir þú þau hvørt hjá ødru? en hann sagdi: hjá Steineik nokkurri. 59. En Daníel svaradi: einnig hefir þú rétt logid móti þínu eigin høfdi, því eingill Guds bídur og heldur á sverdi, til ad høggva þig sundur í midju og uppræta ykkur.

60. Og allur þíngheimurinn æpti upp yfir sig med hárri raust og lofadi Gud, sem bjargar þeim, er á hann vona. 61. Og þeir risu móti bádum øldúngunum, þared Daníel hafdi med þeirra eginframburdi sýnt ad þeir væru ljúgvottar. 62. Og þeir gjørdu vid þá, þad sem þeir vondslega høfdu hugsad náúnganum, eptir Móses løgmáli, og deyddu þá, og svo var saklaust blód frelsad á þeim sama degi. 63. En Hilkía og hans kona lofudu Gud fyrir dóttur sína, og Jójakim madur hennar, og frændur hennar, ad ekkért skammarlegt var fundid í fari hennar. 64. Og fólkinu mikladist Daníel frá þeim sama degi og þadanaf.

# Um Bel og Drekann í Babel.

1. Og kóngurinn Astyages safnadist til sinna fedra og Kyrus, sá persiski, tók vid hans ríki. 2. Og Daníel var jafnan hjá kónginum, og var heidradur framyfir alla hans vini. 3. Og þeir í Babýlon høfdu god, sem hét Bel, uppá þad var kostad daglega 12 mælirum hveitis, 80 saudum og 6 ámum víns. 4. Og kóngur heidradi godid og fór daglega ad tilbidja þad. 5. En Daníel tilbad sinn Gud. Og kóngurinn sagdi vid hann: því tilbidur þú ekki Bel? En hann svaradi: eg heidra ekki god sem gjørd eru med høndum; heldur þann lifandi Gud, sem skapad hefir himin og jørd og er herra yfir øllu holdi. 6. Og konúngur sagdi til hans: heldur þú þá ad Bel sé ekki lifandi Gud? Eda sjer þú ekki hvad mikid hann etur og drekkur daglega. 7. Og Daníel mælti hlæandi: láttu ekki blekkja þig, konúngur! því innan til er þad leir og ad utan málmur, og hefir aldrei etid.

8. Þá reiddist kóngur, og kalladi sína presta og sagdi til þeirra: ef þér segid mér ekki hvør því eydir sem hér er tilkostad, skulud þér missa lífid; 9. en ef þér gétid sýnt mér ad Bel eti þad, svo skal Daníel deya, því hann hefir atyrdt Bel. Og Daníel mælti vid konúnginn: veri þad eins og þú segir! 10. En Bels prestar voru 70 fyrir utan konur og børn. Og konúngurinn gékk med Daníel í Bels musteri. 11. Og prestar Bels søgdu: sjá, vér gaungum burt, en set þú nú, konúngur, mat fyrir (Godid) og áfeingan drykk, og læs dyrunum og innsigla þær med þínum (signets) hríng. 12. Og komir þú á morgun, og ef þú finnur ei allt uppunnid af Bel, svo skulum vér deya, eda Daníel sem á oss lýgur. 13. En þeir voru ugglausir, því þeir høfdu gjørt leynigaung uppundir bordid, og geingu þau og átu (allt) upp. 14. Og þad skédi, þá þeir voru burt geingnir, ad kóngurinn setti mat fyrir Bel. En Daníel skipadi sínum þénurum ad sækja øsku, og þeir strádu henni um allt musterid svo kóngur einn horfdi á. Og þeir geingu burt og læstu dyrunum, og

innsigludu þær med kóngsins hríng og geingu
burt. 15. En prestarnir komu eptir venju sinni
um nóttina med konum sínum og børnum og
átu og drukku allt upp.

16. Og Konúngur var snemma á fótum
um morguninn og Daníel med honum. 17.
Og hann mælti: er innsiglid óskaddad, Daníel?
En hann svaradi: óskaddad, Konúngur! 18.
Og sem dyrunum var lokid upp, leit Konúngur á
bordid og kalladi med hárri raust, mikill ertu Bel,
og einginn svik med þér! 19. En Daníel
brosti og aptradi Konúngi ad gánga inn, og
mælti: Líttu þó á gólfid og géf gaum ad!
eptir hvørn eru þessi spor? 20. Og Konúng-
ur sagdi: eg sje spor karlmanna, kvennmanna
og barna. Þá reiddist Konúngur, 21. og lét
handtaka prestana og þeirra konur og þeirra
børn, og þeir sýndu honum leyni dyrnar, sem
þeir høfdu geingid inn um, þá þeir átu upp
þad sem á bordinu var. 22. Og kóngur lét
deyda þá og fékk Bel, Daníeli á vald, og hann
braut hann nidur og hans musteri.

23. Og þar var mikill Dreki sem Babýlons
menn dýrkudu. 24. Og konúngur sagdi vid
Daníel: munt þú og segja um þennann ad hann
sé úr eiri, sjá, hann lifir og etur og drekkur, þú
getur ekki sagt ad hann sé ei lifandi Gud: svo
tilbid hann nú! 25. Og Daníel mælti: Drott-
minn Gud tilbid eg; því hann er lifandi
Gud. 26. En leyf þú mér Konúngur, og skal
eg drepa drekann, án sverds og barefliss. Og
Konúngurinn mælti: eg leyfi þér þad. 27.
Þá tók Daníel bik og feiti og hár og saud
þad saman og gjørdi úr køkur, og lét í munn
drekanum, og hann át og sprakk af því.
Og hann (Daníel) mælti: þetta eru ydar gudir!

28. En sem Babýlonsmenn spurdu þetta,
mislíkadi þeim mjøg og gjørdu upphlaup
móti Konúngi og mæltu: Gydíngur nokkur
er ordinn Konúngur, því Bel hefir hann
nidurbrotid og deydt Drekann og fyrirfarid
prestunum. 29. Og þeir komu og søgdu vid
Konúnginn: framsel oss Daníel! ef ekki, þá
deydum vér þig og þitt hús. 30. Og sem
Konúngur sá, ad þeir geingu fast ad honum,
neyddist hann til ad framselja þeim Daníel.
31. En þeir køstudu honum í ljóna grifju,
og þar var hann, í 6 daga. 32. En 7
ljón voru í grifjunni og menn gáfu þeim
daglega tvo menn og tvo saudi; en þá var
þeim ekkért géfid, svo þau skyldu eta Daníel.

33. Og spámadur nokkur Habakuk var í
Júda landi, hann saud saup og braut braud
nidur í skál nokkura, og fór med þad útá ak-
ur til uppskéru manna. 34. Þá sagdi Eing-
ill Drottins vid Habakuk: færdu matinn sem
þú ber, Daníeli í ljónagryfjuna í Babýlon. 35.
Og Habakuk mælti: Drottinn! Babýlon hefi
eg aldrei sjed, og ljóna gryfjuna þekki eg ekki.
36. Þá tók Eingill Drottins í hans hvirfil,
og flutti hann svo, med því ad halda í hans
høfud hár, til Babýlon, ad ljónagryfjunni í
hvin vindsins. 37. Og Habakuk kalladi og
mælti: Daníel! Daníel! tak vid þeirri fædu
sem Gud sendir þér. 38. Og Daníel ansadi:
já, þú minntist mín, Gud, og yfirgéfur þá
ekki sem þig elska. 39. Og Daníel stód upp
og át. En Drottins Eingill flutti Habakuk
strax aptur á sinn stad. 40. Og Konúngur-
inn kom á sjøunda degi til ad harma Daníel,
og kom ad gryfjunni og leit inn, og sjá! Dan-
íel sat þar. 41. Þá kalladi hann med hárri
raust og mælti: mikill ert þú Drottinn, Daní-
els Gud, og einginn annar er (Gud) helldurenn
þú! 42. Og hann lét draga hann upp, en
þeim sem høfdu ætlad sér ad fyrirfara honum,
lét hann kasta í gryfjuna, og þeir voru ódar
uppetnir fyrir hans augum.

---

# Bæn Asaría,

og

## Lofsaungur þeirra þriggja manna í eldinum.

Dan: 3, 13.

1. Og Asaría stóð og bað, og lauk upp sínum munni, midt í eldinum og mælti: 2. Vegsamadur sért þú Drottinn, vorra fedra Gud, og lofadur, og þitt nafn sé prísad eilíflega! 3. Því réttvís ert þú í øllu sem þú gjørir, øll þín verk eru rétt, og þínir veigir beinir, og allir þínir dómar sannleiki. 4. Og réttann dóm hefir þú álagt í øllu því sem þú hefir látid koma yfir oss og yfir þá helgu borg, borg vorra fedra, Jerúsalem; því eptir sanni og rétti létstu allt þetta koma sakir vorra synda. 5. Því vér høfum syndgad og brotid, svo vér vikum frá þér, 6. og vér drýgdum misgjørdir í øllu, og hlýddum ekki þínum bodordum, né héldum þau, né gjørdum sem þú hafdir bodid, svo oss mætti vel vegna. 7. Og allt sem þú létst yfir oss koma, og allt sem þú gjørdir oss, þad hefir þú gjørt eptir réttum dómi. 8. Og þú gafst oss á vald gudlausra óvina og fjandsamlegra uppreistar manna, og ránglátasta og vesta Kongúngs á jørdunni. 9. Og nú getum vér ekki lokid upp vorum munni; til svívirdíngar og hádúngar erum vér ordnir þínum þjónum og dýrkendum. 10. En útskúfa oss þó ekki algjørlega, sakir þíns nafns, og ónýt ekki þinn sáttmála. 11. Og drag ekki þína miskunsemi í hlé vid oss, søkum Abrahams þíns vinar, søkum Isaaks, þíns þjóns, og søkum Israels, þíns heilaga, 12. hvørjum þú hétst, ad fjølga kyni þeirra líkt himinsins stjørnum og sandi sjáfarstrandarinnar. 13. Því, Drottinn, vér erum ordnir færri enn allar þjódir, og erum nú audvirdilegir á allri jørdinni sakir vorra synda. 14. Og nú á þessum tíma er einginn høfdíngi, einginn spámadur, einginn fyrirlidi, eingin brennifórn, eingin sláturfórn, ekkért matoffur, eingin reykélsisfórn, og eingin stadur, hvar vér getum fórnad og fundid náð. 15. En láttu oss med sundurkrømdu hjarta og audmjúkum anda móttøku finna. 16. Vor fórn fyrir þér, í þeim tilgángi ad sýna þér fullkomna hlýdni, sé þér sem brennifórn hrúta og nauta og þúsunda af feitum lømbum; því þeir sem þér treysta verda ekki til skammar. 17. Og nú adhyllumst vér þig af øllu hjarta og óttumst þig og leitum þíns auglitis. 18. Lát oss ei verda til skammar, heldur gjør vid oss eptir þinni náð og eptir þinni mikilli miskunsemi. 19. Og frelsa oss sakir þinna dásemdarverka, og géf þínu nafni heidur, Drottinn, svo allir þeir skammist sín sem audsýna íllt þínum þjónum, 20. og verdi til skammar fyrir (þínu) veldi, og lát þeirra krapt brotna, 21. svo ad þeir fái ad vita, ad þú ert Drottinn, sá eini Gud og vegsamlegur í øllum heimi.

22. Og þeir létu ekki af, sem þeim høfdu (þángad) kastad, Kóngsins þjónar, ad hita ofninn med nafta og biki, hálmi og hrísi, 23. og loganum sló 49 álnir upp úr ofninum, 24. og breiddist út og brendi þá af Kaldeu-

mønnum, sem hann nádi til allt í kríngum ofninn. 25. En Engill Drottins var geinginn til þeirra sem hjá Asaría voru, inn í ofninn, og hratt eldsloganum útúr ofninum, 26. og gjørdi midt í ofninum sem hæga daggar vindgolu; og eldurinn snerti þá ekki, og meiddi þá ekki og gjørdi eingann erfidleika. 27. Þá birjudu þeir þrír ad sýngja lof svo sem med einum munni og vegsømudu og þøkkudu Gudi í ofninum og søgdu: 28. Vegsamadur sért þú Drottinn, Gud vorra fedra, og lofadur og hátt vídfrægdur ad eilífu! 29. Og vegsamad sé þitt heilaga dýrdlega nafn, og hátt lofad og hátt upphafid ad eilífu! 30. Vegsamadur sért þú í þínu helga dýrdlega musteri, hátt lofadur og hátt prísadur ad eilífu! 31. Vegsamadur sért þú, sem skodar undirdjúpin og situr á Kerúbum og lofadur og hátt prísadur ad eilífu! 32. Vegsamadur sért þú í hásæti þíns Konúngs dóms, hátt lofadur og hátt prísadur ad eilífu! 33. Vegsamadur sért þú á festíngu himinsins og prísadur ad eilífu! 34. Vegsamid Drottinn, øll Drottins verk, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 35. Vegsamid Drottinn, þér himnar, sýngid lof og vídfrægid hann hátt ad eilífu! 36. Vegsamid Drottinn, þér Drottins Englar, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 37. Vegsamid Drottinn, þér vøtn og allt þad sem er yfir himninum, sýngid lof og hefjid hann hátt ad eilífu! 38. Allir Drottins herskarar vegsami Drottinn, sýngid lof og hefjid hann hátt ad eilífu. 39. Vegsamid Drottinn, sól og túngl, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 40. Vegsamid Drottinn, þér himinsins stjørnur, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 41. Allt regn og døgg vegsami Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 42. Vegsamid Drottinn, allir vindar, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 43. Vegsamid Drottinn, eldur og hiti, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 44. Vegsamid Drottinn, frost og ilur, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu. 45. Vegsamid Drottinn, døgg og skúrir, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu. 46. Dagar og nætur, vegsamid Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 47. Vegsamid Drottinn, ljós og myrkur, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 48. Ís og frost, vegsamsamid Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu. 49. Héla og snjór, vegsamid Drottinn, sýngid lof, og prísid hann hátt ad eilífu! 50. Vegsamid Drottinn, eldíngar og ský, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 51. Jørdin vegsami Drottinn, sýngi lof og prísi hann hátt ad eilífu. 52. Fjøll og hædir, vegsamid Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 53. Allt sem á jørdinni vex, vegsami Drottinn, sýngi lof og prísi hann hátt ad eilífu! 54. Vegsamid Drottinn, þér uppsprettur, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 55. Vegsamid Drottinn, sjór og ár, sýngid lof og prísid hann ad eilífu! 56. Vegsamid Drottinn, þér hvalfiskar, og allt sem hrærist í vatninu, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 57. Þér allir himinsins fuglar, vegsamid Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 58. Vegsamid Drottinn, øll dýr og fénadur, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 59. Vegsamid Drottinn, mannanna synir, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 60. Ísrael vegsami Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 61. Þér prestar, vegsamid Drottinn, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 62. Vegsamid Drottinn, þér þénarar, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 63. Vegsamid Drottinn, þér andar og sálir enna réttlátu, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 64. Vegsamid Drottinn, þér gudræknu og af hjarta audmjúku, sýngid lof og prísid hann hátt ad eilífu! 65. Vegsamid Drottinn, þér Ananía, Asaría, Misael, sýngid lof og prísid

hann hátt ad eilífu! því hann þreif oss úr helju, og hjálpadi oss úr daudans hønd, og frelsadi oss úr þeim brennandi eldsofni, og bjargadi oss úr loganum. 66. Þakkid Drottni! því hann er gódur, því hans miskun varir ad eilífu. 67. Vegsamid Drottinn, þér enir gudhræddu, sýngid lof og þakkir gjørid gudanna Gudi! því hans miskun varir ad eilífu.

# Manassis Bæn.

(Skal ei finnast á Grísku).

1. Almáttugi Drottinn, Gud vorra fedra Abrahams, Isaaks og Jakobs og þeirra réttlátu nidja. 2. Þú sem hefir gjørt himin og jørd med allri þeirra prýdi. 3. Þú sem hefir innsiglad hafid med ordi þíns bods, og byrgt undirdjúpid og innsiglad med þínu óttalega og dýrdlega nafni! 4. Fyrir hvørjum allir hlutir hljóta ad skélfast, og nøtra fyrir þínu volduga augliti! 5. Því hátign þinnar dýrdar er óbærileg, og sú reidi sem þú hótar syndurum er óþolandi. 6. En sú miskun sem þú heitir, er næsta mikil og óransakanleg; því þú ert sá ædsti Drottinn, innilega miskunsamur, ríkur af lánglundargédi og mjøg nádugur, sem ydrast þess illa, er þú lætur yfir menn koma. 7. Þú Drottinn, hefir heitid, eptir þinni mikilli gjædsku, umvendun og fyrirgéfníngu þeim sem hafa syndgad móti þér, og þú hefir af þinni mikilli miskunsemi tilsett syndurum yfirbót til velferdar. 8. Svo hefir þú, Gud enna réttlátu, ekki tilsett yfirbót þeim réttlátu, Abraham, Isaak og Jakob, sem ekki syndgudu á móti þér, heldur hefir þú tilsett mér, syndaranum, yfirbót. 9. Því eg hefi optar syndgad á móti þér, enn margur er sandurinn í hafinu, mínar misgjørdir eru ordnar mjøg margar, Drottinn! og eg er ei verdugur fyrir ad skoda og sjá himinsins býrd, sakir margfjølda minna misgjørda. 10. Eg er beigdur í keing med mørgum járnhlekkjum, og gét ei upplypt høfdinu, og hefi einga hvíld, af því eg hefi vakid þína reidi, med því ad gjøra þad sem íllt var fyrir þínu augliti, eg gjørdi ei þinn vilja, og hélt ekki þín bodord, kom til vegar vidurstygd, og módgadi þig næsta mjøg. 11. Og nú beigi eg kné míns hjarta og bid þig um nád, Drottinn! eg hefi syndgad, og játa mínar misgjørdir. 12. En eg bid þig og grátbæni, Drottinn! fyrirgéf mér, fyrirgéf mér þad, og fyrirfar mér ekki med mínum misgjørdum, og vertu ekki reidur, svo ad þú geimir mér þad vonda eilíflega, og fordæmir mig til jardarinnar nedstu filsna, því þú ert Gud, þeirra Gud, sem gjøra yfirbót. 13. Sýn á mér alla þína gjædsku; því þú skalt bjarga mér ómaklegum eptir þinni mikilli miskunsemi. 14. Og eg skal lofa þig alla daga míns lífs; því allur himinsins her lofar þig, og þér tilheyrir heidurinn ad eilífu.



Hid

# Nýa Testamenti

Drottins vors

## Jesú Krists.

## Matteusar Gudspjall.

### 1. Kapítuli.

Ættartala Krists; hans getnadur af heilogum Anda; nafn hans og fæding.

1. Þetta er ættartala Jesú Krists, sem
kominn er af ættum þeirra Davíds og Abra-
hams: 2. Abraham gat Ísaak; Ísaak gat
Jakob; Jakob gat Júdas og brædur hans;
3. Júda gat Fares og Sara vid Tamar;
Fares gat Esrom; Esrom gat Aram; 4. Ar-
am gat Aminadab; Aminadab gat Naasson;
Naasson gat Salmón; 5. Salmón gat Bóos
vid Rakab; Bóos gat Obed vid Rut; Obed
gat Jessai; 6. Jessai gat Davíd Konúng;
Davíd gat Salomon vid konu Uriasar; 7.
Salomon gat Róbóam; Róbóam gat Abía;
Abía gat Asa; 8. Asa gat Jósafat; Jósafat
gat Jóram; Jóram gat Osías; 9. Osías
gat Jóatam; Jóatam gat Akas; Akas gat Ese-
kías; 10. Esekías gat Manasses; Manasses
gat Amon; Amon gat Jósías; 11. Jósías
gat Jekonías og brædur hans um þann Babý-
loniska herleidíngar tíma. 12. En eptir herleid-
ínguna gat Jekonías Salatíel; Salatíel gat
Sóróbabel; 13. Sóróbabel gat Abiúd; Abiúd gat

V. 1 — 17. Samanb. Lúk. 3, 23 — 38.

Eliakeim; Eliokeim gat Asór; 14. Asór gat Sadók; Sadók gat Akeim; Akeim gat Eliúd; 15. Eliúd gat Eleasar; Eleasar gat Mattan; Mattan gat Jakob; 16. Jakob gat Jósep, mann Maríu, sem var módir Jesú, hvørr ed kallast Kristur. 17. Eru þanninn alls 14 ættlidir frá Abraham til Davíds, frá Davíd til þeirrar Babýlonisku herleidíngar 14, og 14 frá herleidíngunni til Krists.

18. Fæding Jesú Krists skédi med þessum atburdum: módir hans María var føstnud Jósep, en ádur enn þau komu saman, fannst hún barnshafandi af heiløgum Anda; 19. En festarmadur hennar Jósep, sem var valmenni, og ekki vildi gjøra henni opinbera mínkun, ásetti sér ad skiljast heimuglega vid hana. 20. Þegar hann hafdi þetta í hyggju, þá vitradist honum Eingill Guds í draumi og sagdi: Jósep, ættnidji Davíds! výla þú ekki fyrir þér ad gánga ad eiga Maríu festarkonu þína; því sá þúngi, er hún geingur med, er gétinn af heiløgum Anda. 21. Hún mun son fæda, hann skaltú láta heita Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk frá þess syndum. 22. En allt þetta skédi, svo ad rættist þad, sem Drottinn mælti fyrir spámanninn, er svo sagdi: 23. „Sjá! mey mun barnshafandi verda og son fæda, hann munu menn heita láta Emmanúel“; þad þýdir: Gud med oss. 24. Þegar Jósep vaknadi, gjørdi hann, sem Eingill Drottins hafdi bodid, og tók festarkonu sína til sín; 25. en hafdi þó ekki samrædi vid hana, uns hún ól sinn frumgétinn son, hvørn hann lét heita Jesús.

## 2. Kapítuli.

Vitríngar veita Kristí lotníngu. Hann flýr til Egyptalands. Heródes lætur deyda sveinbørnin í Betlehem. Jesús kémur til Nasaret.

1. Þegar nú Jesús var fæddur í Betlehem í Júdeu, á døgum Heródesar Konúngs, komu vitríngar úr Austurløndum til Jerúsalem, og søgdu: 2. hvar er sá nýfæddi Konúngur Gydínga? vér høfum sjed hans stjørnu í Austurløndum, og erum komnir til ad veita honum lotníngu. 3. En er Heródes Konúngur heyrdi þetta, vard hann skélfdur, og øll Jerúsalem med honum, 4. og lét samankalla alla ædstu presta og løglærda lýdsins, og spurdi þá: hvar Kristur ætti ad fædast? 5. Þeir søgdu honum: í Betlehem í Júdeu; því þannig hefdi spámadurinn skrifad: 6. „Þú Betlehem í Júdeu ert einganveginn hin minnsta á medal merkisborga Júdeu; því frá þér mun koma høfdíngi, er ráda skal fyrir mínum lýd Ísrael“. 7. Þá kalladi Heródes vitríngana til sín á laun, og spurdi þá vandlega: nær stjarnan hefdi sjest? 8. sendi þá sídan til Betlehem og sagdi: farid, og haldid vandlega spurnum fyrir um barnid, og þegar þér hafid þad fundid, kunngjørid mér þad, ad eg einninn géti komid ad audsýna því lotníngu. 9. En þá þeir høfdu heyrt Konúnginn, fóru þeir leidar sinnar. Og sjá! stjarna sú, sem þeir høfdu sjed í Austurløndum, gékk undan þeim, þar til hana bar þar yfir, hvar barnid var; 10. og er þeir sáu stjørnuna, gløddust þeir hardla mjøg, 11. geingu inn í húsid, og fundu þar barnid ásamt med Maríu módur þess, féllu fram og veittu því lotníngu. Þar næst opnudu þeir fjárhirdslur sínar, og færdu því gjafir, gull, reykélsi og myrru. 12. Sídan gaf Gud þeim ávísun í draumi, ad þeir skyldu ekki snúa aptur til Heródesar; fóru þeir því adra leid til baka til síns lands.

13. Þegar þeir voru burtu farnir, vitradist Engill Drottins Jósep í draumi, og sagdi: statt upp! og tak barnid og módur þess, og flý til Egyptalands, og ver þar þángad til eg segi

V. 19. 5 Mós. 21, 23 — 24. V. 22. Es. 7, 14. V. 5. Mik. 5, 1.

þér; því Heródes mun leita barnsins ad fyrifara því. 14. En þá hann vaknadi, tók hann barnid og módur þess samnættis, og fór til Egyptalands, 15. og dvaldi þar til þess Heródes var daudur; svo ad rættist þad, sem Drottinn sagdi fyrir spámanninn: „af Egyptalandi kalladi eg Son minn."

16. En er Heródes sá ad hann var gabbadur af vitríngunum, vard hann afar reidur; sendi út og lét myrda øll sveinbørn í Betlehem, og í þeim hérødum, er þar voru í grend, tvævetur og þau, er ýngri voru, sem svaradi þeirri tímaleingd, er hann hafdi komist eptir af vitríngunum. 17. Sannadist þá þad, sem spámadurinn Jeremías segir: 18. „Í Rama heyrdust hljód, kveinstafir, grátur og vein mikid, Rakel harmar børn sín, og vill ekki huggast láta, því þad er útgjørt um þau."

19. Þegar Heródes var daudur, vitradist Engill Drottins Jósep í draumi í Egyptalandi, og sagdi: 20. statt upp! og tak barnid og módur þess og far til Gydíngalands, því þeir eru daudir, er setid hafa um líf barnsins. 21. Jósep stód upp, tók barnid og módur þess, og fór til Gydíngalands. 22. En er hann heyrdi ad Arkelaus hefdi tekid vid ríki í Júdeu, í stad Heródesar födur síns, bar hann ekki traust til ad fara þángad, og veik því, eptir ávísun Guds í draumi, í Galíleuland, 23. og settist ad í borg þeirri, er heitir Nasaret, svo ad þad rættist, sem spámennirnir høfdu fyrirsagt: ad hann skyldi nadverskur kallast.

## 3. Kapítuli.

*Jóhannes kénnir, skírir, áminnir; Jesús er skírdur af Jóhannesi.*

1. Á þeim tíma kom Jóhannes Skírari, og hóf þessa kénníngu í óbygdum Júdeulands: 2. Bætid rád ydar, því himnaríki er nálægt. 3. Um hann er þad, sem spámadurinn Esajas kémst svo ad ordi: „Í óbygdum er kallad: tilbúid veg Drottni, beinid brautir hans." 4. En sjálfur bar Jóhannes klædnad af úlfalda hárum, og hafdi ledurbelti um sínar lendar; til matar hafdi hann eingisprettur og skógar-húnáng. 5. Þá kom til hans fólk frá Jerúsalem og úr allri Júdeu, og úr øllum hérødum vid Jórdan, 6. og hann skírdi þá í ánni, þegar þeir høfdu játad sín afbrot. 7. En sem hann sá marga Faríséa og Sadúséa koma til sinnar skírnar, sagdi hann svo vid þá: þér, nødrungar! hvørr hefir kénnt ydur, ad þér þannig gjætud umflúid tilkomandi hegníngu? 8. til þess verdid þér ad bera þann ávøxt, er sambjódi betrudu hugarfari. 9. Segid ekki af sérþótta med sjálfum ydur: vér egum Abraham fyrir födur, því trúid mér, ad máttugur er Gud ad vekja Abrahami børn af steinum þessum; 10. því nú þegar rídur øxin ad rótum trjánna, og mun þá hvørt þad tré, sem ekki ber gódann ávøxt, upphøggvid verda og í eld kastad. 11. Eg skíri ydur einúngis í vatni til lifnadar bóta, en sá, sem eptir mig kémur, er mér svo miklu meiri, ad eg ekki er verdur ad bera skóklædi hans; hann mun skíra ydur med heiløgum Anda og eldi; 12. sína varpskúflu ber hann í hendi sér, med hvørri hann hreinsar sinn láfa; korninu mun hann safna í hlødu, en hismid mun hann brenna í ósløkkvanda eldi.

13. Um þessar mundir kom Jesús úr Galíleu til Jórdanar, til Jóhannesar, þess erindis ad skírast af honum, 14. en Jóhannes skoradist undan því, og sagdi: mér er þørf ad eg skírist af þér, og þú kémur til mín. 15. Jesús svaradi honum og sagdi: veittú mér þetta, því þannig heyrir okkur ad gjøra allt þad, sem rétt er; og

V. 15. Hos. 11, 1. V. 17. Jer. 31, 15. Matt. 3, 1 og fylg. Sbr. Mark. 1, 2—11. Lúk. 3, 1—22.
V. 3. Esa. 40, 3.

þá lét Jóhannes það eptir honum. 16. Og sem Jesús var skírdur, sté hann jafnskjótt upp úr vatninu, og sjá! þá opnudust himnarnir uppyfir honum, og Jóhannes sá Guds Anda ofanstíga eins og dúfu, og koma yfir hann; 17. og sjá! þá heyrdist rødd af himnum, er sagdi: þessi er Sonur minn elskulegur, á hvørjum eg hefi velþókknun.

## 4. Kapítuli.

*Jesú er freistad af djøflinum; Hann víkur burt frá Júdeu og býr í Kapernaum; kénnir, kvedur fjóra Lærisveina sér til fylgdar, kénnir sídan og læknar.*

1. Eptir það var Jesús leiddur af Anda á eydimørku, ad hann freistadist af djøflinum; 2. og er hann hafdi fastad fjørutíu daga og fjørutíu nætur, tók hann loks ad húngra. 3. Þá kom freistarinn til hans og sagdi: ef þú ert Guds Sonur, þá bjód þú, ad steinar þessir verdi ad braudum. 4. Jesús svaradi: skrifad stendur, „madurinn lifir ekki af einusaman braudi, heldur af sérhvørju því, sem Gud vill." 5. Þessu næst tók djøfullinn hann med sér í borgina helgu, og fór med hann uppá musteris bustina, og sagdi vid hann: 6. ef ad þú ert Sonur Guds, þá kasta þér hér ofan fyrir, því skrifad er: „Gud mun bjóda Englum sínum ad sjá þér borgid, og þeir munu bera þig á høndum sér, ad ekki steytir þú fót þinn vid steini." 7. Jesús svaradi honum: aptur stendur skrifad: „ekki skaltú freista Drottins Guds þíns." 8. Enn á ný fór djøfullinn med hann uppá ofurhátt fjall, og sýndi honum þadan øll ríki veraldarinnar og þeirra dýrd og mælti: 9. allt þetta mun eg géfa þér, ef þú fellur fram og tilbidur mig. 10. Þá mælti Jesús: far frá mér Satan! því svo er skrifad: „Drottinn Gud þinn skaltú tilbidja og honum einum þjóna." 11. Þá yfirgaf djøfullinn hann, og sjá! Englar komu og þjónudu honum.

12. En sem Jesús heyrdi ad Jóhannes var settur í fángélsi, veik hann til Galíleu, 13. og fór frá Nasaret, og settist ad í Kapernaum, er liggur vid sjáfarsíduna á Sabúlons og Neptaleims landamærum, 14. svo ad rættist þad, sem spámadurinn Esajas segir: 15. „Land Sabúlons og Neptaleims vid sjóinn hinumeginn Jórdanar, Galílea hin heidna, 16. lýdur sá er í myrkri sat, sá ljós mikid, og þeim, sem bjuggu í enu dymma daudans landi, er ljós upprunnid." 17. Upp frá þessu hóf Jesús ad kénna, og segja: bætid rád ydar, himnaríki er nálægt.

18. Einhvørju sinni er hann gékk med sjónum í Galíleu, leit hann tvo brædur, Símon sem kalladur var Pétur og Andrés bródur hans, er vóru ad leggja net í sjó, því þeir vóru fiskimenn; 19. og sagdi til þeirra: fylgid mér, og mun eg gjøra ydur ad manna veidurum; 20. þeir yfirgáfu strax netin, og fylgdu honum. 21. Og sem hann gékk þadan lengra áfram, leit hann adra tvo brædur, Jakob Sebedeusson og Jóhannes bródur hans á skipi med Sebedeusi fødur þeirra, og vóru þeir ad bæta net sín; þá kvaddi hann einninn til fylgdar vid sig; 22. þeir yfirgáfu strax skipid og fødur sinn, og rédust til fylgdar vid hann.

23. Sídan fór Jesús um alla Galíleu og kénndi í Samkundum þeirra, og flutti þeim gledibodskapinn um Guds ríki, og læknadi allskyns sjúkdóma og kránkleika medal lýdsins; 24. og barst ordstýr hans um allt Sýrland. Og færdu menn til hans alla sjúka, sem af ýmislegum

Matt. 4, 1 — 11. samanber. Mark. 1, 12 — 13, Lúk. 4, 1 — 13. V. 4. 5 Mós. 8, 3. V. 6. Ps. 91, 11. 12. V. 7. 5 Mós. 6, 16. V. 10. 5 Mós. 6, 13. 10, 12. Matt. 4, 12 — 17, Sbr. Mark. 1, 14 — 15. V. 14. Es. 9, 1. 2 Kóng. 15, 29. V. 18 — 22. Sbr. Mark. 1, 16 — 20. Lúk. 5, 1 — 11. (Jóh, 1, 35 — 43.) V. 23 — 25. Sbr. Mark. 1, 35 — 39. Lúk. 4, 42 — 44.

kránkleikum og þúngum sjúkdómum haldnir vóru,
djøful-óda, túnglsjúka, máttvana, og læknadi
hann þá. 25. Og fylgdi honum mikill fjøldi
fólks úr Galíleu og Dekapólis, Jerúsalem og
Júdeu, og úr landinu fyrir handan Jórdan.

## 5. Kapítuli.

Kénníng Jesú á fjallinu; hans áminníng til Post-
ulanna; hans útskýríng yfir løgmálid og bodordin.

1. En er hann sá mannfjøldann, gékk hann
uppá fjall eitt og settist þar; þá komu lærisvein-
arnir til hans; 2. hóf hann þá kénníngu sína
til þeirra á þenna hátt: 3. Sælir eru andlega
lítillátir, því þeir munu eignast himnaríki. 4.
Sælir eru sorgbitnir, því þeir munu huggun
hljóta. 5. Sælir eru hógværir, því þeir munu
landid eignast. 6. Sælir eru þeir, sem húngr-
ar og þyrstir eptir réttlætinu, því þeir munu
saddir verda. 7. Sælir eru miskunsamir, því
þeir munu miskun hljóta. 8. Sælir eru hrein-
hjartadir, því þeir munu Gud sjá. 9. Sælir
eru fridsamir, því þeir munu Guds børn kallad-
ir verda. 10. Sælir eru þeir, sem sakir sinn-
ar rádvendni, ofsóktir verda, því þeir munu
hlutdeild fá í himnaríki. 11. Sælir erud þér,
þegar menn atyrda ydur, ofsækja og tala gégn
ydur allskonar illyrdi mín vegna, en þó ljúg-
andi. 12. Fagnid þá og gledjist, því ydar
verdkaup er mikid á himnum; þannig ofsóktu
þeir spámennina, sem fyrir ydur vóru.

13. Þér erud salt jardar; nú, ef saltid dofn-
ar, med hvørju skal þá selta þad? þad er þá
til einkis nýtt, nema ad útkastast og fótum trod-
ast af mønnum. 14. Þér erud ljós heimsins;
sú borg, sem á fjalli er bygd, fær ekki dulist.
15. Menn kveikja ekki ljós til ad setja þad und-
ir mæliker, heldur setja menn þad í ljósa-stiku,
ad þad lýsi þeim, sem inni eru; 16. svo lýsi
og ydvart ljós ødrum mønnum, ad þeir sjái yd-
ar góda framferdi, og dýrki ydar himneska
Fødur.

17. Ætlid ekki, ad eg sé kominn til ad af-
taka løgmálid og spámennina; til þess er eg ekki
kominn, heldur til þess ad fullkomna þad. 18.
Sannlega segi eg ydur: fyrr mun himin og jørd
forgánga enn víkja megi frá hinum minnsta bók-
staf eda titli í løgmálinu, og þad svo grandvar-
lega, ad því sé ad øllu leiti fullnægt. 19.
Hvørr hann brýtur eitt af þessum bodum, er
minnst sýnist umvarda og hvetur adra til þess,
hann mun minnstur kallast í himnaríki; en
hvørr sem hlýdir þeim, og rædur (ødrum til
hins sama), hann mun mikill kallast í himna-
ríki; 20. því eg segi ydur: ad nema ydar
rádvendni taki fram Fariseanna og þeirra løg-
lærdu, munud þér ekki koma í himnaríki. 21.
Þér hafid heyrt ad þad var bannad í fornøld
mann ad vega; en ef einhvørr vægi mann,
skyldi hann dóms sekur; 22. en eg segi ydur:
ad hvørr hann reidist bródur sínum (án or-
saka), er dóms sekur; og hvørr, sem segir vid
bródur sinn: þú heimskíngi! skal af dómsat-
kvædi þess mikla ráds sekjast; en hvørr, sem
segir: þú gudleisíngur! vinnur til Helvítis
elds. 23. Þar fyrir, þegar þú færir gáfu
þína til altarisins, og þér kémur þar í hug,
ad þú hafir eitthvad gjørt á annars hluta, 24.
þá skil þar eptir gáfu þína vid altarid,
far burt og sættst ádur vid bródur þinn,
kom sídan og offra gáfu þinni. 25. Vertu
skjótur til sætta vid mótstødumann þinn, ádur
enn þid mætid bádir fyrir Dómaranum, svo ad
eigi afhendi hann þig Dómaranum, en hann
fángaverdinum, og verdi þér sídan í díblissu kast-

V. 13. Þ. e. þér erud ákvardadir til ad betra mennina, og vardveita þá frá spillingu. V. 17. Fullkomna, þ. e. géfa fullkomnari reglur enn løgmálid og spámennirnir hafa géfid, sjá v. 20. og fl. V. 21. 2 Mós. 20, 13. 3 Mós. 24, 17.

ad. 26. Sannlega segi eg þér: ad þú munt þadan ekki útkomast, fyrr enn þú hefir borgad hinn sídasta pening. 27. Þér hafid heyrt bodid: „þú skalt eigi hórdóm drýgja;“ 28. en eg segi ydur: ad hvørr hann lítur konu girndar auga, hefir þegar drýgt hór med henni í huga sínum. 29. Ef ad auga þitt hid hægra hneixlar þig, þá stíng þad út, og kasta því á burt; því betra er þér ad missa einn lima þinna, enn øllum þínum líkama verdi kastad í helvíti. 30. Eins ef þín hægri hønd lokkar þig til syndar, þá sníd hana af og kasta á burt; betra er þér ad missa einn lima þinna, enn ad øllum þínum líkama verdi kastad í helvíti. 31. Þad er bodid: „ad hvørr sem segir skilid vid konu sína, skuli géfa henni skilnadarskrá“; 32. en eg segi ydur: ad hvørr hann lætur skilid vid konu sína, án þess hún sé um hór sek, er skuld í ad hún verdur hórkona, og hvørr, sem geingur ad eiga þá konu, sem vid mann sinn hefir skilid, drýgir hór. 33. Þér hafid einnin heyrt: ad forfedrunum var géfid þad bodord: „þú skalt ekki sverja rángann eid, heldur efna svardaga þína vid Gud“; 34. en eg segi ydur: ad þér eigid øldúngis ekki ad sverja; hvørki vid himininn, því hann er hásæti Guds; 35. né vid jørdina, því hún er hans fótskør; ekki heldur vid Jerúsalem, því hún er borg þess mikla Konúngs; 36. ekki heldur vid høfud þitt, því ekki gétur þú gjørt eitt einasta hár svart eda hvítt á því; 37. en játid því sem satt er, og neitid því, sem ósatt er; hvad þér segid framar þessu, þad kémur frá hinum vonda. 38. Þér hafid heyrt: ad bodid er: „auga fyrir auga, tønn fyrir tønn“; 39. en eg segi ydur: rísid ekki øndverdir móti meingjørdum annara, heldur slái nokkur þig á hægri kinn þína, þá bjód honum einnig hina, 40. og vilji nokkur hafa lagadeilur vid þig um kyrtil þinn, þá lát honum og yfirhøfn þína lausa. 41. Neydi nokkur þig um einnar mílu fylgd, þá far med honum tvær; 42. géf þeim, sem bidur, og vertu ekki afundinn vid þann, sem af þér vill lán taka. 43. Þér hafid heyrt ad bodid er: „þú átt ad elska náúnga þinn, og hata óvin þinn“; 44. en eg býd: ad þér elskid óvini ydar, blessid þá, sem ydur bølva, gjørid þeim gott, sem hata ydur, og bidjid fyrir þeim, sem rógbera ydur og ofsækja; 45. svo þér séud børn Fødurs ydar á himnum, hvørr ed lætur sína sól upprenna yfir vonda og góda, og rigna yfir rádvanda og órádvanda. 46. Því þótt þér elskid þá, sem ydur elska, hvør laun egid þér skilid fyrir þad? gjøra ekki tollheimtumenn hid sama? 47. og þótt þér látid ad eins kjært vid landa ydar, hvad gjørid þér í því, sem hrósverdt sé? gjøra ekki heidnir menn hid sama? 48. verid þar fyrir fullkomnir, eins og ydar Fadir á himnum er fullkominn.

## 6. Kapítuli.

Jesús talar um ølmusur, bænir, føstu, himneskan auð; varar vid áhyggju.

1. Varist ad fremja gódverk ydar í annara manna augsýn, til þess ad þeir sjái þau; annars hafid þér engra launa ad vænta af ydar himneska Fødur. 2. Þegar þú þar fyrir ætlar ad géfa ølmusu, þá lát ekki blása í lúdur fyrir þér, eins og hræsnarar gjøra á samkomum og strætum, ad þeim verdi hrósad af mønnum, því trúid mér! þeir hafa úttekid laun sín. 3. En nær þú vilt géfa ølmusu, þá viti ekki hønd þín hin vinstri, hvad sú

V. 27, 2 Mós. 20, 14. V. 31. 5 Mós. 24, 1. V. 33. 3 Mós. 19, 12. 4 Mós. 30, 3. V. 34. Sbr. Jak. 5, 12. V. 37. Sbr. 1 Jóh. 3, 12. V. 38. 2 Mós. 21, 24. 3 Mós. 24, 20. V. 43. 3 Mós. 19, 18. Lúk. 6, 27. V. 3. Viti ekki — hægri gjørir, þ. e. hykist ekki med sjálfum ydur af því.

hægri gjørir; 4. svo þín góðgjørð sé hulin, og Faðir þinn sem sjer það, sem í leyni er gjört, mun þér það opinberlega endurgjalda. 5. Eins, nær þú biðst fyrir, þá hegða þér ekki sem hræsnarar, sem vanir eru að standa og biðjast fyrir á strætum og gatnamótum, til þess að þeir verði sjenir af øðrum; sannlega segi eg yður: þeir hafa úttekið sín laun. 6. En nær þú vilt biðjast fyrir, þá far þú í svefnhús þitt, og loka dyrunum; bið svo Føður þinn í einrúmi, og hann, sem sjer hvað í einrúmi skéður, mun veita þér það opinberlega. 7. Varist í bænum yðrum ónytju mælgi, eins og heiðíngja er siður, fyrir hvørja þeir hyggja að verða bænheyrðir; 8. varist því að líkjast þeim; Faðir yðar veit hvørs þér viðþurfið, áður enn þér biðjið hann. 9. Biðjið þar fyrir á þessa leið: Faðir vor, þú, sem ert á himnum! helgist þitt nafn; 10. tilkomi þitt ríki; verði þinn vilji, svo á jørðu, sem á himni; 11. géf oss í dag vort daglegt brauð; 12. og fyrirgéf oss vorar misgjørðir, eins og vér fyrirgéfum þeim, sem oss á móti brjóta; 13. og leið oss ekki í freistni, heldur frelsa oss frá íllu. 14. Því ef þér forlátið øðrum þeirra yfirsjónir, þá mun yðar himneski Faðir forláta yður; 15. en ef þér ekki fyrirgéfið øðrum, mun Faðir yðar himneskur ekki heldur fyrirgéfa yður yðar misgjørðir. 16. Nær þér fastið, þá verið ekki með hryggu yfirbragði, sem hræsnarar, hvørjir er afmynda ásjónur sínar, svo aðrir sjái að þeir fasti; sannlega segi eg yður: þeir hafa sín laun úttekið. 17. En nær þú fastar, þá smyr høfuð þitt, og þvo þitt andlit, 18. svo aðrir verði ekki varir við að þú fastir, nema Faðir þinn, sem er ósýnilegur; og Faðir þinn, sem sjer hvað í einrúmi skéður, mun þér það endurgjalda.

19. Safnið yður ekki auðæfum í heimi þessum, hvar mølur og ryð eta þau, og hvar þjófar grafa til og stela; 20. safnið yður heldur auðæfum á himnum, hvar þeim hvørki grandar mølur eða ryð, né þjófar grafast til þeirra, og stela þeim; 21. því hvar, sem auðæfi yðar eru, þar er og yðvart hjarta. 22. Augað er ljós líkamans; nú ef auga þitt er heilskygnt, þá nýtur allur líkami þinn birtu; 23. en sé auga þitt gallað, þá er allur líkami þinn í myrkri. Nú ef það ljós, sem í þér er, er myrkur, hve svart mun ekki það myrkur vera? 24. Einginn kann tveimur herrum að þjóna, því annaðhvørt hlýtur hann að meta þann eina miður og hinn annan meira, eða hann hlýðir þeim øðrum, og afrækir hinn. Þannig gétið þér ekki verið bæði þjónar Guðs og Mammons. 25. Eg segi yður því: verið ekki hugsjúkir fyrir yðru lífi, hvað þér skuluð eta og drekka, ekki heldur fyrir yðrum líkama, hvørju þér skuluð klæðast. Er ekki lífið meira verðt enn fæðan, og líkaminn meir enn klæðnaðurinn? 26. Lítið til fuglanna í loptinu, hvørki sá þeir né uppskéra, og ekki heldur safna þeir í kornhløður, þó fæðir yðar himneski Faðir þá; eruð þér ekki miklu ágjætari þeim? 27. Hvørr af yður gétur, með allri sinni áhyggju, aukið einni alin við hæð sína? 28. Eða, hví eruð þér áhyggjufullir fyrir fatnaðinum? skoðið akursins liljugrøs, hvørsu þau vaxa; hvørki vinna þau né spinna; 29. en trúið mér: að Salómon í øllu sínu skrauti, var ekki svo fagurlega búinn, sem eitt af þeim; 30. ef að Guð nú skrýðir svo grasið á jørðunni, það í dag stendur, en á morgun verður í ofn kastað, hvørsu miklu framar mun hann ekki klæða yður, þér trúarveikir? 31. Spyrjið því ekki hugsjúkir: hvað fáum vér til matar? hvað fáum vér að drekka? og hvað fáum vér til fata? 32. Slíka áhyggju hafa heiðnir menn; en yðar himneskur Faðir veit, að þér þurfið alls þessa við. 33. Leitið umfram

allt Guds ríkis, og þeirrar rádvendni, sem honum
líkar, þá munud þér fá allt þetta í vidbót; 34.
verid því ekki hugsjúkir fyrir morgundeginum;
hann mun sjálfur bera umhyggju fyrir sér;
hvørjum degi nægir sín mæda.

## 7. Kapítuli.

*Jesús varar vid ómildum dómum; talar um bæn; um kjarna løgmálsins, um veginn til lífsins, um falsspámenn og hræsnara.*

1. Verid ekki ómildir í dómum ydar um
adra, ad ei dæmi þeir eins um ydur; 2. því
líkur dómur og þér fellid yfir ødrum, mun
yfir ydur feldur verda, og eins og þér mælid
ødrum, munu þeir aptur mæla ydur. 3. Hvørn-
in sjer þú flýsina í þíns bródurs auga, en
gjætir ekki þess bjálkans, sem er í þínu egin
auga? 4. Eda hvørnin fær þú sagt vid hann:
láttú mig taka flísina úr auga þér, medan
bjálki er í þínu egin auga? 5. Þú hræsnari!
drag fyrst bjálkann úr þínu eigin auga, og
sjádu sídan til ad þú fáir dregid flísina úr
þíns bródurs auga.

6. Kastid ekki helgidómum fyrir hunda, né
perlum ydrum fyrir svín, ad þau ekki trodi þær
fótum, snúist sídan ad sjálfum ydur, og rífi
ydur í sundur.

7. Bidjid, þá mun ydur géfast; leitid þá
munud þér finna; knýid á, og þá mun fyrir
ydur upplokid verda; 8. því hvørr sem bidur,
hann ødlast; hvørr, er leitar, hann finnur;
og hvørr, er áknýr, fyrir honum mun upplokid
verda. 9. Edur er nokkur sá af ydur, sem
gjæfi syni sínum stein, ef hann bædi um braud;
10. eda høggorm, ef hann bædi um fisk? 11.
Ef nú þér, sem vondir erud, tímid ad géfa
børnum ydar gódar gjafir, hvørsu miklu fram-
ar mun þá ekki ydar himneskur Fadir géfa
þeim góda hluti, sem bidja hann þess? 12.
Allt hvad þér viljid ad mennirnir gjøri ydur,
þad skulud þér og þeim gjøra; þetta er kjarni
løgmálsins og spámannanna.

13. Gángid um hid þraungva hlid; því
þad hlid er vídt og sá vegur er breidur, sem
liggur til gløtunar, og margir eru þeir, sem
hann gánga. 14. Hvørsu er þad hlid þraungt
og mjór sá vegur, er til lífsins leidir, og
fáir þeir, er hann rata? 15. Gjætid ydar
fyrir fals-kénnendum, sem koma til ydar í
sauda ham, en hid innra eru þeir grádugir
vargar; 16. af þeirra ávøxtum skulud þér
þekkja þá; hvørt géta menn lesid vínber af
þyrnum edur fíkjur af þistlum? 17. Þannig
ber hvørt gott tré gódan ávøxt, en slæmt tré
slæman ávøxt. 18. Gott tré gétur ekki borid
slæman ávøxt, ekki heldur slæmt tré gódan á-
vøxt. 19. En hvørt þad tré, sem ekki ber
gódan ávøxt, skal verda upphøggvid og í eld
kastad; 20. þar fyrir kunnid þér af ávøxt-
um þeirra ad þekkja þá. 21. Ekki munu allir
þeir, sem til mín segja: Herra! Herra! koma
í himnaríki, heldur þeir einir, sem gjøra vilja
míns himneska Fødurs. 22. Á þeim degi
munu margir segja til mín: Herra! Herra!
høfum vér ekki í þínu umbodi kénnt, rekid
djøfla út og gjørt mørg kraptaverk? 23. en
eg mun segja þeim berlega: aldrei þekkta eg
ydur fyrir mína; farid frá mér, þér illgjørda
menn! 24. Hvørr hann heyrir þessa mína
kénníngu og breytir eptir henni, honum vil eg
líkja vid forsjálan mann, er bygdi hús sitt á
bjargi; 25. nú kom steypi-regn og vatnsflód,
stormar risu og buldu á því húsi, en þad féll
samt ekki, því þad var grundvallad á bjargi.
26. Þarámót er sá, sem heyrir þessa mína kénn-
íngu, og breytir ekki eptir henni, líkur heimsk-
um manni, er bygdi hús sitt á sandi; 27.
nú kom steypi-regn og vatnsflód, stormar risu

V. 7—12, Sbr. Lúk. 11, 9—13. V. 22. Þeim degi, þ. e. dóms degi.

og dundu á því húsi, þá féll það, og þess
hrun vard mikid.

28. Þegar Jesús hafdi lokid þessari rædu,
undradist lýdurinn mjøg yfir kénníngu hans; 29.
því hann kénndi svo sem sá, er hafdi Guds
umbod á hendi, en ekki sem hinir skriftlærdu.

## 8. Kapítuli.

Jesús læknar líkþráan mann, þjón hundradshøfdíng-
jans, módur konu Péturs og fleiri sjúka; talar um
ordugleika vid þad, ad fylgja sér; kyrrir vind og
sjó, útrekur djøfla.

1. En er hann gékk nidur af fjallinu, fylgdi
honum mikill fjøldi fólks; 2. þá kom til hans
líkþrár madur, tilbad hann og mælti: Herra!
ef þú vilt, gétur þú hreinsad mig; 3. þá rétti
Jesús út høndina, snerti hann og sagdi: eg vil,
vertú hreinn; 4. og strax vard hann hreinn af
líkþrá sinni. 5. Þá sagdi Jesús vid hann:
varastú ad segja þetta nokkrum, heldur far og
sýn þig Prestinum, og offra þeirri gáfu, sem
Móses baud, ødrum til sanninda merkis.

6. Þegar hann kom inn í Kapernaum, kom
til hans hundradshøfdíngi nokkurr, og tók svo
til orda: þjón minn liggur heima visinn, og er
mjøg þúngt haldinn. 7. Jesús sagdi: eg skal
koma og lækna hann; 8. þá svaradi hundrads-
høfdínginn: Herra! ekki er eg verdur þess, ad
þú gángir inn undir mitt þak. Bjód þú ad
eins med einu ordi, og mun minn þjón heill
verda. 9. Því nær eg, sem er yfirvaldi und-
irgéfinn og hefi ad ráda yfir stridsmønnum, býd
einum þeirra ad fara, þá fer hann, og ødrum ad
koma, þá kémur hann, eda þræli mínum ad gjøra
eitthvad, þá gjørir hann þad. 10. Þegar Jes-
ús heyrdi þetta, undradist hann og mælti vid
þá, sem fylgdu honum: sannlega segi eg ydur,
ad slíka trú hefi eg ekki fundid medal Gydínga;
11. en þér skulud vita, ad margir munu koma
ad austan og vestan, og sitja til bords med
Abraham, Isaak og Jakob í ríki himnanna;
12. en þeir, sem þetta ríki var ætlad, munu
verda reknir í myrkrid fyrir utan, hvar vera
mun grátur og gnístur tanna. 13. Sídan
sagdi Jesús vid hundradshøfdíngjann: far þú
heim, verdi þér eptir trú þinni, og samstundis
vard þjón hans heilbrigdur.

14. Sídan kom Jesús í hús Péturs, og sá
þar módur konu hans; hún lá sjúk af køldu; 15.
tók hann þá í hønd henni, og þá yfirgaf kald-
an hana, en hún fór á fætur og bar þeim mat.
16. Um kvøldid færdu þeir til hans marga djøf-
ulóda, og rak hann andana út med ordi einu
og alla þá, sem sjúkir voru, læknadi hann;
17. sannadist þá þad, sem spámadurinn Esajas
sagdi: „hann burttók vor kránkdæmi, og bar
vorn sjúkleika."

18. En þegar Jesús sá fjølda fólks hjá sér,
baud hann ad fara yfirum sjóinn; 19. þá kom
einn skriftlærdur til hans og sagdi vid hann:
Meistari! eg vil fylgja þér hvørt sem þú fer.
20. Jesús mælti: refar hafa holur og fuglar him-
ins skýli, en Manusins Sonur hefir hvørgi høfdi
sínu ad ad halla. 21. Annar madur, sem var
einn af Lærisveinum hans, sagdi til hans: Herra!
leyf mér fyrst ad fara og grafa fødur minn.
22. Jesús mælti: fylg þú mér, og lát þá daudu a)
grafa sína daudu.

23. Sídan steig hann á skip og Lærisveinar
hans med honum; 24. gjørdi þá svo mikinn
storm, ad skipid huldi af bylgjunum, en hann
svaf; 25. þá geingu Lærisveinarnir til hans og

V. 2—5. Sbr. Mark. 1, 40—45. Lúk. 4, 12—16. V. 5. 3 Mós. 14, 2—32. V. 6—13, sbr. Lúk. 7, 2—10. V. 9. Sjúkdómarnir munu hlýda Jesú, eins og stridsmenn yfirbodara sínum. V. 14—17, sbr Mark. 1, 21—34. Lúk. 4, 31—41. V. 17, sbr. Esaj. 53, 4. V. 18—22, sbr. Lúk. 9, 57—61. V. 20. Dan. 7, 13. V. 22. a. Þ. e. þá holdlega sinnudu. V. 23—27, sbr. Mark. 4, 35—41. Lúk 8, 22—25.

vöktu hann og sögdu: hjálpa þú oss, Herra!
vér forgaungum. 26. En hann svaradi: hví
erud þér svo hræddir? þér, trúarveiku! Því
næst stód hann upp og hastadi á vindinn og
sjóinn; vard þá blída logn. 27. Þetta undr-
udust menn mjög og sögdu: hvílíkur er þessi,
ad bædi vedur og sjór hlýda honum?

28. Þegar hann kom yfir um í hérad Ger-
gesumanna, hlupu í móti honum tveir menn
djöfulódir, sem komu úr gröfum daudra manna,
svo ólmir, ad engum var fært ad fara þann veg.
29. Og sjá! þeir hrinu upp og sögdu: hvad
höfum vér og þú, Guds Son! saman ad sælda?
Ertú kominn híngad, ádur enn tími er til, ad
kvelja okkur? 30. En svo stód á, ad stór hjörd
svína var á beit lángt þadan. 31. Djöflarnir
bádu hann þá: ef þú ætlar ad reka oss út, þá
leyf oss ad fara í svínahjörðina. 32. Hann
segir: farid þid! þeir fóru út, og í svínin; ærd-
ist þá hjördin og steypti sér ofan fyrir heingi-
flug í sjóinn og týndist þar. 33. En þeir, er
svínanna gjættu, flýdu til borgarinnar, og sögdu
þar allt, sem farid hafdi, eins um þá djöfulódu.
34. Þá fóru allir borgarmenn til móts vid
Jesúm, og þegar þeir fundu hann, bádu þeir
hann ad fara á burt úr þeirra landareign.

## 9. Kapítuli.

Jesús læknar visinn mann; kvedur Matteus til fylgd-
ar, og forsvarar sig og lærisveinana; læknar blód-
fallssjúka kvinnu, og uppvekur dóttur Jaírusar;
læknar tvo blinda, og einn djöfulódan; aumkast
yfir lýdinn.

1. Hann steig þá á skip, fór yfir um og
kom í sína borg. 2. Þá var færdur til hans
visinn madur, sem lá í rekkju; og er Jesús sá
trú þeirra, sagdi hann til hins visna: vertú hug-
hraustur, sonur! þínar syndir eru þér fyrirgéfn-
ar; 3. þetta álitu nokkrir skriftlærdir ad vera
gudlöstun; 4. og er Jesús vard var vid hvad
þeir hugsudu, sagdi hann: því hugsid þér svo
íllt? 5. Hvört er audveldara ad segja: syndir
þínar eru þér fyrirgéfnar, edur ad segja: statt
upp og gakk? 6. En til þess ad þér skulid
vita, ad Mannsins Sonur hefir vald til ad
fyrirgéfa syndir á jördunni, þá — segir hann
til hins visna — statt upp, tak sæng þína og
gakk heim til þín, 7. og hann stód upp og fór
heim til sín. 8. Þegar fólkid sá þetta, undr-
adist þad og lofadi Gud, ad hann hefdi géfid
mönnunum slíkt vald.

9. Þegar Jesús fór þadan, sá hann mann
sitja hjá tollbúdinni, Matteus ad nafni; þenna
kvaddi hann til fylgdar vid sig; hann stód
upp og fylgdi honum. 10. En svo bar til, er
Jesús var ad mat í húsi hans, ad margir toll-
heimtarar og bersyndugir komu þángad, og möt-
udust þar med Jesú, og Lærisveinum hans; 11.
og er Farísear sáu þad, sögdu þeir til Lærisveina
hans: því matast Lærimeistari ydar med toll-
heimturum og bersyndugum? 12. Þegar Jes-
ús heyrdi þad, mælti hann til þeirra: ekki
þurfa heilbrygdir læknis vid, heldur þeir, sem
vanheilir eru; 13. en farid þér og nemid hvad
þad þýdir: „þekkari er mér mannelska, enn off-
ur;" því ekki er eg kominn til ad kalla réttláta
heldur synduga til sidbóta.

14. Þá komu til hans Lærisveinar Jóhann-
esar, og spurdu: því föstum vér og Faríseарnir
svo opt, en þínir Lærisveinar fasta ekki? 15.
Jesús svaradi: þad sæmir ekki ad brúdmennirn-
ir séu med hryggu bragdi, medan brúdguminn
er med þeim. En sá tími mun koma, ad brúd-
guminn verdur numinn frá þeim, og þá munu
þeir fasta. 16. Enginn leggur nýa bót á gam-
alt fat, því bótin rífur fatid og spjöllin verda

V. 28 — 34, sbr Mark. 5, 1 — 20. Lúk. 8, 26 — 39. V. 1 — 8. Sbr. Mark. 2, 1 — 12. Lúk. 5, 17 — 26. sína borg, þ. e. Kapernaum. V. 9 — 17. Sbr. Mark 2, 13 — 22. Lúk. 5, 27 — 39. V. 13. Hós. 6, 6,

verri; 17. ekki heldur eru menn vanir ad koma nýu víni í gamla belgi, því annars springa belgirnir, vínid spillist, og belgirnir ónýtast. Heldur er nýtt vín látid í nýa belgi, og er þá hvorttveggja vel geymt.

18. En er hann var þetta ad tala, kom inn til hans høfdíngi nokkurr, tilbad hann og sagdi: dóttir mín er nýdaud, kom þú og legg hønd yfir hana, þá mun hún lifna. 19. Jesús fór med honum og Lærisveinar hans; 20. og sjá! þá kom kona nokkur, sem haft hafdi blódfall í tólf ár, ad baki honum og snart fald hans klæda; 21. því hún sagdi med sjálfri sér: ef eg ad eins fæ snortid yfirhøfn hans, þá mun mér batna; 22. en Jesús snérist vid, og þá hann leit hana, sagdi hann: vertu hughraust, dóttir! þín trú hefir hjálpad þér, og vard hún strax heilbrygd. 23. Nú er hann kom í hús høfdíngjans, og sá þar pípara, og þys fólksins, 24. sagdi hann til þeirra: Farid þér í burtu! ekki er stúlkan daud, heldur sefur hún, en þeir hlóu ad honum. 25. En þá búid var ad rýma fólkinu út, gékk hann inn, og tók í hønd henni, og reis þá stúlkan upp; 26. og barst fregnin um þetta út um allt þad hérad.

27. Þegar Jesús fór þadan, fylgdu honum tveir menn blindir; þeir kølludu þannig: Jesú! nidji Davíds, miskuna þú okkur! 28. En er hann var kominn til húss, komu þeir blindu til hans. Jesús sagdi til þeirra: trúid þér, ad eg géti þetta gjørt? þeir søgdu: já, Herra! 29. Þá snart hann augu þeirra og mælti: verdi ykkur ad trú ykkar! 30. Og augu þeirra opnudust; þá lagdi Jesús ríkt á vid þá, ad segja engum manni frá þessu. 31. En strax, sem þeir vóru komnir út, báru þeir hans ordstír út um allt þad hérad.

32. Þegar þeir vóru í burt farnir, var færdur til hans madur nokkur mállaus, djøful-ódur; 33. og er djøfullinn var útrekinn, fékk sá málid, er mállaus var. Þetta undradist fólkid og mælti: aldrei hefir þvílíkt sjest medal Israels manna. 34. En Farísear søgdu: ad hann ræki djøfla út med hjálp djøfla høfdíngjans.

35. Sídan fór Jesús um allar borgir og þorp, kénndi í samkundum þeirra, og flutti gledi-bodskapinn um Guds ríki; hann læknadi allskyns sjúkdóma og kránkleika; 36. en er hann sá fólkid, kénndi hann í brjósti um þad, því þad var þjád og hirdíngarlaust, sem sú hjørd, er engan hirdir hefir. 37. Þá sagdi hann vid lærisveina sína: kornskéran er ad sønnu mikil, en verkamennirnir fáir; 38. bidjid því Herrann kornskérunnar, ad hann vilji senda verkamenn til sinnar kornskéru.

## 10. Kapítuli.

Jesús útsendir þá tólf Postula til ad kénna og gjøra kraptaverk; hughreystir þá á móti ofsóknum og lífláti; lofar þeim umbun er veita þeim móttøku.

1. Sídan kalladi hann til sín sína tólf lærisveina, og gaf þeim vald ad reka út óhreina anda, og lækna allskyns sjúkdóma og kránkleika. 2. Nøfn þessara tólf postula vóru þessi: fyrst var Símon, sem kallast Pétur, og Andrés bródir hans, Jakob Sebedeusarson, og Jóhannes bródir hans, 3. Filippus og Bartólómeus, Tómás og Matteus tollheimtari, Jakob Alfeusarson og Lebbeus, er kallast Taddeus. 4. Símon vandlætari og Júdas frá Karíot, sem sídan sveik hann.

5. Þessa tólf sendi Jesús frá sér, og gaf þeim ádur þessa skipun; farid þér eigi til heidinna þjóda, og gángid eigi inn í neina samverska borg; 6. heldur farid til týndra sauda af Is-

V. 18—26, sbr. Mark. 5, 22—43. Lúk. 8, 41—56. V. 34, sbr. Matt. 12, 34. V. 37, sbr. Lúk 10, 2. V. 1—4, sbr. Mark. 3, 13—19. Lúk. 6, 13—16. V. 7—15, sbr. Mark. 6, 7—13. Lúk. 9, 1—6. (sbr. Lúk. 10, 1—12).

raels ætt; 7. og kunngjørid: ad Guds ríki sé nálægt; 8. læknid sjúka, lífgid dauda, hreinsíd líkþráa, rekid djøfla út; þér hafid fengid þetta kauplaust, gjørid þad og kauplaust. 9. Eigi skulud þér hafa gull, silfur edur eir í beltum ydrum, 10. né taka med ydur á veginn nestismal; eigi hafa tvo kyrtla, ekki skó edur staf, því verdur er verkamadurinn fædisins. 11. En í hvørja þá borg edur þorp, er þér komid, þá spyrjist fyrir: hvørr þar sé (ydar gistíngar) verdur, hjá honum skulud þér gista, til þess þér farid þadan. 12. Þegar þér gángid inn í húsid, þá árnid þeim góds, sem þar eru, 13. og séu þeir þess verdir, munu óskir ydar hrína á þeim, en ef ekki, munu þær hverfa aptur til ydar. 14. Sé sá nokkurr, sem ekki vill veita ydur vidurtøku, eda hlýda ydar kénníngu, þá farid burt af því heimili edur þeim stad, og hristid dupt a) af fótum ydrum; 15. trúid mér, bærilegra mun verda straff Sódómu og Gómorru á degi dómsins enn þeirrar borgar.

16. Sjá! eg sendi ydur, sem saudi medal úlfa; verid því varir um ydur, sem høggormar, og meinlausir, sem dúfur. 17. Gætid ydar fyrir mønnum, því þeir munu færa ydur á þíng og afhýda ydur í samkundu húsum sínum, 18. og fyrir Landstjórnara og Konúnga munud þér færdir verda fyrir mínar sakir, svo bædi þeim og heidíngjum verdi minn lærdómur kunnur. 19. En nær þeir framselja ydur, þá verid ekki hugsjúkir um, hvørnin edur hvad þér skulud tala; því í sama bragdi mun því verda skotid ydur í brjóst; 20. því þad er ekki þér, sem talid, heldur andi Fødurs ydar, sem í ydur talar. 21. Bródir mun framselja bródur til lífláts, og fadir barn sitt; þá munu og børnin hefjast gégn foreldrunum, og firra þá lífi; 22. og ydur munu allir fyrir mínar sakir ad hatri hafa. En sá, sem stødugur stendur til enda, hann mun hólpinn verda. 23. Nær þeir ofsækja ydur í einni borg, þá flýid í hina, og nær þeir ofsækja ydur í henni, þá flýid í þá þridju. Trúid mér! þér munud ekki hafa lokid umferd ydvarri um allar Israels borgir, ádur Mannsins Son kémur. 24. Lærisveinninn er eigi fyrir sínum Meistara, ekki heldur þjóninn fyrir sínum húsbónda; 25. lynda má lærisveininum, ad hann hafi sømu kjør, sem Meistarinn, og þrælnum, sem húsbóndi hans; en hafi þeir kallad húsfødurinn Belsebúl, hvørsu miklu heldur munu þeir kalla þjóna hans þad? 26. En hrædist þá samt ekki; því ekkért er svo hulid, ad ei muni opinbert verda, og ekkért svo fólgid, ad ei verdi augljóst; 27. hvad eg segi ydur heimuglega, þad skulud þér opinberlega ødrum kénna, og þad, sem ydur er sagt hljódlega, skulud þér í fjølmenni flytja. 28. Hrædist ekki þá, sem líkhamann deyda, en géta ekki líflátid sálina; hrædist heldur þann, sem vald hefir ad tortýna bædi sálu og líkhama í helvíti. 29. Selja menn ekki tvo titlínga fyrir einn pening, þó deyr enginn þeirra án vilja Fødurs ydar; 30. jafnvel ydar høfud-hár eru talin; 31. hrædist því ekki, þér erud meira verdir enn margir titlíngar. 32. Hvørr hann kannast vid mig fyrir mønnum, vid þann mun eg einninn kannast fyrir mínum Fødur á himnum. 33. En hvørr sem ekki vill kannast vid mig fyrir mønnum, vid þann mun eg ekki heldur kannast fyrir mínum Fødur á himnum. 34. Ætlid ekki, ad af minni komu muni fridur standa; ekki mun hún fridi valda, heldur styrjøldum. 35. Af henni mun koma ósamlyndi milli fødurs og sonar, dóttur og módur, sonarkonu og módur manns hennar; 36. og húsbóndans heimamenn munu hans óvinir vera. 37. Hvørr hann elskar fødur eda

V. 14. a. þ. e. sem merki þess, ad þeir vildu ekkért hafa saman vid þá ad sælda. V. 19—42, sbr. Lúk. 12, 2—12. (Matt. 16, 24—25. Mark. 9, 37—41). V. 21. Mikk. 7, 5. 6. V. 35. Mikk. 7, 6.

módur meir enn mig, hann er mín ekki verdur,
og hvørr hann elskar son eda dóttur meir enn
mig, sá er mín ekki verdur; 38. og hvørr sem
ekki tekur sinn kross og fylgir mér eptir, hann
er mín ekki verdur. 39. Hvørr hann hyggst
ad forda lífi sínu, mun því týna, en hvørr
hann vogar því í hættu, fyrir mína skuld,
mun fá því borgid. 40. Hvørr hann veitir
ydur vidurtøku, er sem hann veiti mér vidur-
tøku, og hvørr, sem veitir mér vidurtøku, er
sem hann veitti þeim vidurtøku, er mig sendi.
41. Hvør hann veitir einum spámanni vidur-
tøku, vegna þess hann er spámadur, mun
spámanns-laun ødlast; hvør hann tekur vid
rádvøndum, fyrir þad ad hann er rádvandur, mun
hljóta hins rádvanda umbun; 42. og hvørr hann
gefur einum af þessum umkomulausu kaldann
vatnsdrykk, vegna þess ad hann er minn Lærisveinn,
trúid mér! hann mun ekki fara á mis vid sín laun.

## 11. Kapítuli.

Jóhannes lætur spyrja Jesú, hvørt hann sé Messí-
as; Jesús talar um Jóhannes, kvartar yfir lýdsins
einþykkni, ávítar borgir, vegsamar rád Guds, og
býdur voludum til sín.

1. Þegar Jesús hafdi lokid þessari skipun
sinni til þeirra tólf Lærisveina sinna, fór hann
þadan ad kénna og prédika í Gydínganna borgum.
2. Nú er Jóhannes heyrdi í fángélsinu verk-
in Krists, sendi hann til hans tvo Lærisveina
sína, er spyrja skyldu: 3. hvørt hann væri
sá, er koma skyldi, eda ættu þeir ad vænta
annars? 4. Jesús sagdi vid þá: farid þid
og segid Jóhannesi, hvad þér heyrid og sjáid: 5.
blindir fá sýn, halltir gánga, líkþráir hreinsast,
heyrnarlausir heyra, daudir endurlifna, og um-
komulausum bodast gledi bodskapurinn a); 6.
og sæll er sá, sem ekki hneyxlast á mér!
7. Þegar þeir voru burtu farnir, hóf Jes-
ús rædu sína til fólksins um Jóhannes á þessa
leid: hvad fórud þér ad sjá á eydimørkum? hvørt
reyr þann, er vindurinn skekur? 8. edur hvad fór-
ud þér ad sjá? hvørt mann skrautbúinn? gjætid
ad: þeir, sem í skraut eru búnir, eru í Konúng-
anna høllum; 9. hvad fórud þér þá ad sjá?
hvørt einn spámann; já, í sannleika þann, sem meiri
er enn nokkur spámadur; 10. því hann er sá, um
hvørn ritad er: „minn sendiboda sendi eg und-
an þér, er greida skuli þér veg". 11. Trúid
mér: einginn er af konu fæddur, er meiri sé
enn Jóhannes Skírari; þó er sá minnsti í
himnaríki honum meiri. 12. Frá døgum Jó-
hannesar Skírara og til þessa, leita menn
himnaríkis kappsamlega, og þeir, sem képpast
eptir því, hrífa þad til sín; 13. því allt þáng-
ad til Jóhannes kom, hafa allir spámenn og
løgmálid sagt þetta fyrir; 14. og ef þér viljid
fallast á þad, þá er hann sá Elías, er koma
skal. 15. Heyri þetta hvør, sem heyrt getur!
16. Vid hvad skal eg líkja þessara tída mønn-
um? þeim fer eins og børnum, sem á torgi
eru, og kalla þannig til leiksbrædra sinna: 17.
vér høfum kvedid ydur gledikvædi, en þér haf-
id ekki viljad dansa; vér høfum súngid ydur
harmasaungva, og þó vildud þér eingin sorg-
ar-merki sýna. 18. Jóhannes kom, og lifdi
vid harda kosti, og søgdu menn ad hann væri
vitstola. 19. Mannsins Sonur kom og neytti
alls frjálslega; hann kallid þér mat-hák og
vínsvelg, vin tollheimtara og bersyndugra.
En skynsamir menn einir dæma rétt um skyn-
sama hegdun.
20. Sídan tók hann ad ávíta þær borgir, í
hvørjum hann hafdi flest kraptaverk framid, ad
þær hefdu aungva umbót gjørt, og tók svo til

V. 41. Spámanni, þ. e. Krists lærdóms predikara. V. 2—19, sbr. Lúk. 7, 18—35. V. 3. 5 Mós. 18, 15. V. 5. Es. 35, 5. 61, 1. V. 5. a. Þ. e. ad ríki Messíass sé byrjad. V. 10. Malak. 3, 1. V. 14. Malak. 4, 5.

orda: 21. vei þér, Korasín! vei þér, Betsaida!
ef þau kraptaverk, sem í ykkur hafa framin
verid, hefdu verid gjørd í Týrus eda Sídón,
þá mundu þeir fyrir laungu hafa idrun gjørt,
klæddir sorgarbúníngi og ádreifdir øsku. 22.
En trúid mér! bærilegra mun verda straff Týr-
us og Sídónar á degi dómsins, enn ykkar. 23.
Og þú, Kapernaum! sem nú mænir svo hátt í
lopt, þér mun í grunn nidursøkt verda; því
hefdu þau kraptaverk verid framin í Sódómu,
sem í þér hafa gjørd verid, þá stædi hún enn í
dag. 24. Og þad er víst, ad bærilegra mun
verda straff Sódómu á degi dómsins, enn þitt.

25. Um sama leiti tók Jesús svo til orda:
eg þakka þér Fadir, Drottinn himins og jard-
ar! ad þú hefir latid þessa hluti vera hulda
fyrir fródum mønnum og spekíngum, en aug-
lýst þá fáfródum. 26. Sannarlega hefir þér,
Fadir! þóknast ad svo skyldi vera. 27. Allt
er mér af mínum Fødur í vald géfid, og eing-
inn þekkir Soninn nema Fadirinn, og einginn
Fødurinn nema Sonurinn, og sá, sem Sonur-
inn vill þad auglýsa. 28. Komid til mín all-
ir þreyttir, og þér, sem mædist undir þúng-
um byrdum, eg vil géfa ydur hvíld; 29. gáng-
id undir mitt ok, og lærid af mér, því eg er
vægur og af hjarta lítillátur, og munud þér
hugsvølun finna; 30. því mitt ok er inndælt
og mín byrdi létt.

## 12. Kapítuli.

*Lærisveinar Jesú tína korn-øx á hvíldardegi, Jesús læknar visna hønd, læknar djøful ódan, sem var blindur og mállaus, og forsvarar sig fyrir álasi Faríséa; þeir krefja hann teikns. Módir hans og ættíngjar vilja tala vid hann.*

1. Einhvørju sinni fór Jesús á hvíldar-
degi med sínum Lærisveinum, yfir sádlønd nokk-
ur; en er Lærisveina hans sveingdi, tóku þeir
til ad tína kornøxin og eta. 2. Þegar Farise-
ar sáu þad, søgdu þeir til hans: sjá! Læri-
sveinar þínir gjøra þad, sem ekki leyfist á hvíld-
ardegi. 3. Jesús mælti: hafid þér ekki lesid,
hvad Davíd gjørdi, þegar hann var matþurfi
og menn hans? 4. ad hann gékk inní Guds
hús og neytti braudanna helgu, sem hvørki
hann né fylgdarmenn hans og eingir, nema
prestarnir einir, máttu eta. 5. Edur hafid þér
ekki lesid í løgmáls bókinni: ad prestarnir van-
helga hvíldardaginn í musterinu á hvíldardøg-
unum og eru þó sýknir saka? 6. En eg segi
ydur fyrir sann: ad hér er sá, sem meiri er
enn musterid. 7. Ef þér hefdud skilid, hvad
þad þýdir: „mér er mannelska þekkari enn off-
ur", mundud þér ekki hafa sakfellt þessa, sem
saklausir eru, 8. því mannsins Sonur er herra
hvíldardagsins.

9. Þadan fór hann til samkundu þeirra;
10. hér var madur nokkur, er hafdi visna
hønd; þá spurdu þeir hann, hvørt leyfilegt
væri ad lækna á hvíldardøgum? til þess þeir
gætu feingid tilefni til ad ásaka hann. 11.
Hann svaradi þeim: ef sá er nokkur ydar á
medal, sem á einn saud, og falli saudurinn í
pytt á hvíldar-degi, tekur ekki eigandinn hann
strax, og dregur hann upp? 12. Hvad miklu
er þó ekki madurinn ædri enn saudurinn? þess
vegna er leyfilegt ad gjøra þad, sem gott er,
á hvíldar-døgum. 13. Sídan sagdi hann
vid manninn, réttu fram hønd þína! hann
gjørdi svo, og vard hún þá heil, sem hin.
14. En Fariséarnir gengu út og báru saman
rád sín í gégn honum um þad, hvørnin þeir
feingju rádid hann af døgum. 15. Þegar
Jesús vard þess vís, veik hann þadan, og

K. 11, 25—30, sbr. Lúk. 10, 21—22. K. 12, 1—8. sbr. Mark. 2, 23—28: Lúk. 6, 1—5. V. 3. 1 Sam. 21, 6. V. 4. 3 Mós. 24, 9. V. 5. Prestarnir unnu ad fórnfæringum á hvíldardøgum, 4 Mós. 28, 9. V. 7. Hós. 6, 12. V. 9—21, sbr. Mark. 3, 1—5: Lúk. 6, 6—11.

fylgdi honum þá mikill fjøldi fólks, og hann læknadi þá alla, 16. og bannadi þeim streingilega ad gjøra sig uppvísan. 17. Sannadist þá þad sem spámadurinn Esajas sagdi: 18. „Sjá! þjón minn, hvørn eg hefi útvalid, minn ástfólgna, sem mér er þókknanlegur, honum vil eg géfa minn anda = krapt, ad hann kénni heidnum þjódum hvad rétt er; 19. hann mun eigi þrátta, og eigi hárevsti gjøra, og hans kall mun eigi á strætum heyrast. 20. Hinn brákada reyrin mun hann eigi í sundur brjóta, og hid dapra ljós ekki sløkkva, þángad til sannleikurinn hefir sigur unnid; 21. á hann munu þjódirnar treysta".

22. Þá var færdur til hans madur djøfulódur, blindur og mállaus, þenna læknadi hann, svo sá hinn blindi og mállausi fékk bædi mál sitt og sýn. 23. Þetta undradist allt fólkid og sagdi: mun ekki þessi madur vera nidji a) Davíds? 24. En er Faríséar heyrdu þad, søgdu þeir: ekki rekur þessi djøfla út, nema med fulltíngi djøflahøfdíngjans Belsebúls. 25. Nú er Jesús sá þeirra hugrenníngar, sagdi hann til þeirra: hvørt þad ríki, hvar innbyrdis sundurþykki er, mun eydileggjast, og hvør sá stadur edur heimili, hvar innbyrdis sundurþykki er, fær ekki stadist. 26. Ef nú einn djøfull rekur annan út, þá eru þeir innbyrdis sundurþykkir, og hvørninn skyldi djøfulsins ríki þá standast? 27. og ef eg rek djøfla út med Belsebúls fulltíngi, fyrir hvørs adstod útreka þá ydar Lærisveinar þá? þeir skulu því vera ydrir dómendur. 28. En ef eg rek djøfla út fyrir Guds Ando, þá er Guds ríki komid til ydar. 29. Hvør fær brotist inn í hús ens sterka og rænt húsbúnadi hans, nema hann bindi hinn sterka ádur, þá fyrst gétur hann rænt hús hans. 30. Hvørr, sem ekki er med mér, hann er móti mér, og hvørr, sem ekki samansafnar med mér, sá sundurdreifir. 31. Þess vegna segi eg ydur: ad hvørskyns synd og gudlastan kann mønnum fyrirgéfin ad verda, en smánarleg ord gégn Andanum, munu mønnum ekki fyrirgéfast. 32. Þótt einhvørr lasti Mannsins Son, kann þad honum forlátid ad verda, en ef nokkur talar gégn heiløgum Anda, þá mun honum þad ekki fyrirgéfast, hvørki í þessu né komanda lífi. 33. Ef tréd er gott, eru og ávextirnir gódir, en sé þad slæmt, eru ávextirnir slæmir; því af ávextinum þekkist tréd. 34. Þér, nødru = kyn! hvørninn skyldud þér kunna gott ad mæla, þar þér sjálfir erud vondir? því þad mælir munnurinn, sem hjartad hefir nægst af. 35. Gódur madur framber gott úr gódum sjódi, en vondur madur framber íllt úr vondum sjódi. 36. Eg segi ydur satt: fyrir hvørt þad íllyrdi, er menn mæla, skulu þeir á dómsins degi reikníngsskap lúka; 37. því af þínum ordum muntú sýkn edur sakfeldur verda.

38. Þá søgdu nokkrir skriftlærdir og Faríséar til hans: Meistari! vér viljum gjarna sjá teikn af þér. 39. Hann mælti: þessi vonda og hórsama þjód beidist teikns, en henni skal ekki teikn géfast nema teikn Jónasar Spámanns; 40. Því eins og Jónas var í hvalfiskjarins kvidi í þrjá daga og þrjár nætur, svo mun og Mannsins Son vera í þrjá daga og þrjár nætur í fylsnum jardar. 41. Niníve borgar menn munu framkoma á degi dómsins med þjód þessari, og sýna ad hún sé straffs sek, því þeir gjørdu umbót vid kénníngu Jónasar; og sjáid! hér er sá, sem honum er meiri. 42. Drottníngin úr sudurátt mun framkoma á dómsins degi gégn þjód þessari og auglýsa hana straffs seka ad vera; því hún kom af fjærlægu landi

V. 17. Esa. 42, 1. V. 22—32, sbr. Lúk. 11, 14—23: Mark. 3, 22—29, (Lúk. 12, 10). V. 23, a. Messias. V. 35. Sjódi, þ. e. sjódi hjartans. V. 39—42. sbr. Lúk. 11, 29—32.

ad heyra speki Salómons; en sjáid! hér er sá,
sem honum er meiri. 43. Nær óhreinn andi
fer út af nokkrum, þá ráfar hann um eydi-
merkur, leitar hýbýlis og finnur ekki; 44. þá
segir hann med sér: eg vil aptur snúa til húss
míns, hvadan eg fór, og er hann kémur aptur,
finnur hann þad tómt, sópad og prýdt; 45.
þá fer hann sídan og tekur med sér sjø adra
anda sér skadlegri, og er þeir eru þángad inn-
komnir, byggja þeir þar; verdur svo þad síd-
ara ásigkomulag mannsins verra enn hid fyrra.
Eins mun fara fyrir þessari vondu þjód.

46. Þá er hann enn nú var ad tala til
lýdsins, stódu módir hans og brædur fyrir
dyrum úti og vildu mæla vid hann. 47. Þá
sagdi einhvør honum: módir þín og brædur
þínir eru úti og vilja tala vid þig. 48. En
hann sagdi vid þann, er þetta mælti: hvør er
módir mín og brædur mínir? 49. og vísadi med
høndinni til Lærisveina sinna og sagdi: þessir
eru módir mín og brædur mínir; 50. því
hvørr hann gjørir vilja míns himneska Føðurs,
hann er minn bródir, systir og módir.

## 13. Kapítuli.

Dæmisøgur um sædid, illgresid, mustards kornid, súr-
deigid. Utlegging þeirrar um illgresid; fjársjódur-
inn; perlan; netid. Kristur er fyrirlitinn í sínu
Føðurlandi.

1. Þenna dag gékk Jesús heiman og settist
vid sjóinn. 2. Þá dreif til hans svo mikill
fjøldi fólks, ad hann hlaut ad stíga á skip og
setjast þar, en allur fólksfjøldinn stód í fjørunni;
3. þá kénndi hann þeim margt í dæmisøgum,
og hóf svo rædu sína: Sádmadur nokkurr gékk
út ad sá, 4. en er hann var ad sá, féll sumt
sædid vid veginn og fuglar átu þad. 5. Sumt
féll í grýtta jørd, hvar þad hafdi ekki nógan
jardveg, þad vóx ad sønnu skjótt, því þad hafdi
litla jørd; 6. en er sól hækkadi (á lopti), skræln-
adi þad og visnadi, søkum þess þad hafdi ekki
nægar rætur. 7. Sumt féll medal þyrna, og
þyrnarnir uxu upp og kjæfdu þad. 8. En sumt
féll í góda jørd og bar ávøxt, sumt hundrad-
faldan, sumt sextugfaldan og sumt þrítugfaldan;
9. nemi hvørr, sem nema kann! 10. Þá
komu til hans Lærisveinar hans og spurdu hann,
því hann kénndi fólkinu í dæmisøgum? 11.
en hann svaradi þeim: af því ydur er unnt ad
skilja leynda dóma Guds ríkis, en hinum er
þess ekki unnt; 12. því þeim, er hefir, mun
veitast, svo hann yfirfljótanlega hafi, en frá
hinum, er ekki hefir, mun takast jafnvel þad
hann hefir; 13. en þess vegna kénni eg þeim
í dæmisøgum, ad þó þeir sjái, er þad sem sæu
þeir ekki, og þótt þeir heyri, er þad sem heyrdu
þeir ekki eda skildu. 14. Sannast því á þeim
spádómur Esajasar, er svo segir: „Þér munud
heyra, en þó ekki skilja; þér munud sjá, en þó
ekki þekkja; 15. því lýdur þessi er heimskur, hann
heyrir dauflega, og lykur augum sínum ad hann
ekki skuli sjá, heyra edur skilja, og snúa til mín,
svo eg lækni hann." 16. En sæl eru ydar
augu, sem sjá, og eyru ydar, sem heyra; 17.
því eg segi ydur satt: ad margir spámenn og
Guds vinir fýstust ad sjá þad, sem þér sjáid,
og heyra þad, sem þér heyrid, en heppnadist
þad ekki. 18. Heyrid nú útskíríngu dæmisøg-
unnar um sádmanninn: 19. nær nokkurr heyrir
lærdóminn um Guds ríki og skilur hann ekki, þá
kémur hinn vondi og tekur burt þad, sem sád
var, úr hjarta hans. Þetta merkir sædid, sem
hjá veginum var sád. 20. En þad, sem í grýtta
jørd féll, merkir þann, er heyrir mína kénníngu
og veitir henni vidtøku med føgnudi, 21. en

V. 43 — 45, sbr, Lúk. 11, 24 — 26. V. 46 — 50, sbr, Mark. 3, 31 — 35: Lúk. 8, 19 — 21. V. 1 — 23, sbr. Mark. 4, 1 — 20: Lúk. 8, 5 — 15. V. 12. Sá sem hefir er sá, sem nemur og skilur; hinn sem ekki skilur, gleymir skjótt því litla, sem hann hefir numid. V. 14. Esaj. 6, 9. 10.

hún hefir ekki vidnám hjá honum, nema um stundarsakir. Því þegar honum mætir mótgángur og ofsóknir fyrir kénníngarinnar skuld, þá fellur hann strax frá. 22. En þad, er sád var medal þyrna, merkir þann, sem ad sønnu heyrir mína kénníngu, en umhyggja fyrir lífi þessu og táldrægni audæfanna kéfja hana, svo hann ber engan ávøxt. 23. En þad, er féll í góda jørd, merkir þá, sem heyra mína kénníngu og skilja hana og færa ávøxt, sumir hundradfaldan, sumir sextugfaldan og sumir þrítugfaldan.

24. Adra dæmisøgu sagdi hann þeim, er svo hljódar: líkt er Guds ríki manni þeim, er sádi gódu sædi í akur sinn; 25. en er menn voru í svefni, kom óvinur hans og sádi illgresi medal hveitisins og fór sídan á brott. 26. En er sædid spratt upp og tók ad bera ávøxt, þá kom og illgresid í ljós. 27. Þá geingu þjónar húsbóndans til hans og søgdu: Herra! sádir þú ekki gódu sædi í akur þinn? edur því ber hann illgresi? 28. hann mælti: þad hefir óvinurinn gjørt. Þá søgdu þjónarnir: viltú ekki ad vér førum og upprætum þad? 29. hann sagdi; ekki vil eg þad, ad þér ekki, nær þér upprætid illgresid, rísid hveitid upp med; 30. látid hvørttveggja vaxa saman til kornskérunnar; og þegar kornskéru-tíminn kémur, vil eg bjóda kornskéru-mønnunum, ad safna fyrst saman illgresinu og binda þad í knippi til ad brennast; en safna hveitinu í mína kornhlødu.

31. Þessa dæmisøgu sagdi hann þeim einninn: líkt er Guds ríki mustards-korni því, er madur nokkurr tók og sádi í akri sínum. 32. Minnst er þad allra frækorna, en nær þad vex, er þad meira enn nokkurt kálgresi, og verdur svo stórt, sem eik, svo ad fuglar himins koma og leita sér skýlis í greinum þess. 33. Enn sagdi hann þeim þessa dæmisøgu: líkt er Guds ríki súrdeigi því, er kona ein tók og hnodadi því saman vid þrjá mælira hveitis, uns þad allt sýrdist. 34. Þetta allt kénndi Jesús í dæmisøgum, og fyrir utan dæmisøgur kénndi hann þeim ekki; 35. svo ad þad sannadist, er spámadurinn segir: „eg mun kénna í dæmisøgum, og þá hluti, er huldir hafa verid, frá því er heimur hófst, mun eg mæla."

36. Sídan lét hann fólkid frá sér fara og fór til húss síns; þá komu til hans Lærisveinar hans og bádu hann, ad hann vildi útskíra þeim dæmisøguna um illgresid. 37. Hann mælti: sá er sádi því góda sædi, þýdir Mannsins Son; 38. akurinn þýdir verøldina; hinn gódi ávøxturinn þýdir Guds børn; illgresid þýdir børn hins vonda; 39. en óvinurinn, er sádi því, merkir djøfulinn; kornskéru-tíminn merkir enda heimsins; kornskurdar-mennirnir merkja Englana. 40. Því eins og menn plaga ad safna illgresi og brenna þad, eins mun fara vid enda veraldar þessarar; 41. Mannsins Sonur mun þá senda Engla sína, ad þeir samansafni úr hans ríki øllum þeim, er adra afvega leida og rángt gjøra, 42. og kasta þeim í ofn glóanda; þar mun vera grátur og gnístur tanna; 43. þá munu þeir gódu skína sem sól í ríki Fødurs þeirra. Nemi þetta hvørr, sem nema kann! 44. Enn er Guds ríki líkt fésjód, er fólginn var á akri, hvørn madur nokkurr fann og leyndi honum, en sakir gledi þeirrar fór hann burt, og seldi allar eigur sínar og keypti akurinn. 45. Enn er Guds ríki líkt þeim kaupmanni, er leitadi ad gódum perlum; 46. en er hann fann eina dýrmæta perlu, fór hann og seldi allt hvad hann átti, og keypti hana. 47. Enn er Guds ríki líkt neti því er lagt var í sjó, í hvørju ad veiddust allskyns fiskar; 48. og er þad var fullt, drógu menn þad upp í fjøruna, settust sídan og søfnudu þeim gódu í ílát, en køstudu þeim óætu út aptur. 49. Eins mun fara vid enda heimsins; þá munu Englar

V. 31 — 34, sbr. Mark. 4. 30 — 34. Lúk. 13, 18 — 21. V. 35. Sálm. 78, 2: Esés. 3, 8 — 10.

Guds fara og skilja vonda menn frá gódum; 50. og kasta þeim vondu í ofn brennanda, hvar vera mun grátur og gnístur tanna. 51. Sídan spurdi Jesús þá, hvørt þeir skildu allt þetta? en þeir kvádust þad skilja. 52. Þá mælti hann: hér fyrir er hvørr sá kénnari, sem uppfræddur er til ad þjóna ad útbreidslu Guds ríkis, líkur þeim húsfödur, sem framber úr fordabúri sínu bædi nýtt og gamalt.

53. En er Jesús hafdi lokid þessum dæmisøgum, veik hann þadan, 54. og kom til ættjardar sinnar, og kénndi þeim í samkundum þeirra, svo þeir undrudust og mæltu: hvadan hefir þessi madur slíka speki og kraptaverka gáfu? 55. er hann ekki Sonur smidsins? heitir ekki módir hans María? og brædur hans Jakob og Jóses, Símon og Júdas? 56. og systur hans, eru þær ekki allar hér hjá oss? hvadan hefir þá þessi allt þetta? 57. og þeir hneyxludust á honum; en Jesús sagdi til þeirra: spámadur er hvørgi minna metinn enn á sínni fósturjørdu og medal ættíngja sínna. 58. Hann framdi þar ekki heldur mørg kraptaverk sakir vantrúar þeirra.

## 14. Kapítuli.

*Heródes heldur, ad Jóhannes, hvørn hann hafdi látid hálshøggva, sé endurlífnadur. Jesús mettar 5000 manns, geingur á sjónum, læknar.*

1. Um þessar mundir kom fregnin af Jesú til eyrna Heródesar fjórdúngshøfdíngja; 2. Þá mælti hann vid menn sína: þessi er Jóhannes Skírari, hann er risinn upp frá daudum, þar fyrir fremur hann svo mikil kraptaverk. 3. En Heródes hafdi látid haudtaka Jóhannes, fjøtra hann og setja í myrkvastofu, sakir Heródíadis konu Filippusar bródur síns; 4. því Jóhannes hafdi sagt vid hann: þú mátt ekki taka saman vid hana; 5. og þótt hann vildi láta drepa hann, þordi hann þad þó ekki, sakir alþýdunnar; því allir héldu Jóhannes ad vera spámann. 6. En á fædíngarhátíd Heródesar, dansadi dóttir Heródíadis fyrir géstunum, og féll honum þad svo vel í géd, 7. ad hann hét med eidi ad veita henni hvad hún umbeiddi. 8. En hún bad, eptir undirlagi módur sínnar, ad hann gjæfi sér á diski høfud Jóhannesar Skírara. 9. Vid þetta vard Konúngurinn hryggur, en sakir eids síns og þeirra, er voru í bodi hans, baud hann, ad þetta skyldi henni veitast. 10. Sendi hann því og lét hálshøggva Jóhannes í myrkvastofunni, 11. en høfud hans var lagt á fat og géfid meyunni, en hún færdi módur sínni. 12. En Lærisveinar hans tóku lík hans og greftrudu þad, kunngjørdu sídan Jesú hvad skéd hafdi; 13. og er Jesús heyrdi þad, fór hann á skipi til eydibygda einnsaman, og er fólkid vard þess víst, fylgdi þad honum á landi úr borgunum.

14. En er hann gékk fram, leit hann mikinn fjølda fólks, kénndi í brjósti um þá, og læknadi þá á medal þeirra, sem kránkir voru. 15. En er kvøld var komid, komu Lærisveinar hans til hans og mæltu: vér erum hér í eydimørku, og dagur er nú lidinn ad mestu, láttu fólkid frá þér, ad þad fari í þorpin ad kaupa sér vistir. 16. Jesús mælti: ekki þurfa þeir burtu ad fara; géfid þér þeim mat. 17. Þeir mæltu: ekki høfum vér hér nema fimm braud og tvo fiska. 18. Hann baud þeim ad færa sér þetta. 19. Sídan sagdi hann fólkinu ad setjast nidur í grasid, tók þau fimm braud og þá tvo fiska, leit til himins, gjørdi Gudi þakkir; sídan braut hann braudin, og fékk Lærisveinum sínum þau, en þeir færdu þau fólkinu; 20. og allir neyttu, til þess þeir vóru mettir; þá tóku þeir afgángs-leifarnar, og vóru þad tólf

V. 53 — 58, sbr. Mark. 6, 1 — 6. V. 1 — 13, sbr. Mark. 6, 14 — 29. Lúk. 9, 7 — 9. V. 4. 3 Mós. 18, 16. V. 14 — 36. sbr. Mark. 6, 32 — 56. Lúk. 9, 10 — 17. Jóh. 6, 1 — 21.

karfir fullar; 21. en þeir, sem neytt høfdu,
vóru hér um fimm þúsundir manna, auk kvenna
og barna.

22. Strax er þetta var skéd, baud hann Læri-
sveinum sínum ad stíga á skip og fara undan sér
yfirum á medan hann væri ad koma frá sér
fólkinu. 23. Og sem hann hafdi látid fólkid
frá sér, fór hann einnsaman uppá fjall nokkurt
ad bidjast fyrir; og er kvøld var komid, var
hann þar einn; 24. þá var skipid nærstum kom-
id á midt vatnid, og lá undir áføllum, en and-
vidri var. 25. En er nær fjórdúngur lifdi næt-
ur, kom hann til þeirra gángandi á sjónum.
26. En er Lærisveinarnir sáu hann gánga á
sjónum, urdu þeir felmtsfullir, og søgdu: þad
er vofa; og tóku ad æpa af hrædslu; 27. en
Jesús varpadi strax ordum á þá, og mælti: ver-
id óhræddir, eg er þad, hrædist ekki! 28. Hon-
um ansadi Pétur og mælti: ef þú ert þad,
Herra! þá seg ad eg komi til þín á vatninu.
29. Jesús mælti: kom þú; þá fór Pétur útbyrd-
is og tók ad gánga á vatninu til Jesú. 30.
En er hann sá fellibil einn hardan, hræddist
hann, og er hann tók til ad søkkva, kalladi hann
og mælti: hjálpa þú mér, Herra! 31. þá rétti
Jesús strax út hønd sína, tók til hans og sagdi:
þú trúarlitli! því efadist þú? 32. Og er þeir
stigu á skipid, lægdi vedrid; 33. en þeir, sem
á skipinu vóru, féllu fram fyrir honum og mæltu:
vissulega ertu Guds Sonur!

34. Sídan fóru þeir yfirum, og komu í Gene-
sarets land. 35. En er þeir, sem þar bjuggu,
þekktu hann, sendu þeir í alla bygdina umhverf-
is, og færdu til hans alla þá, sem sjúkir vóru,
36. og beiddust, ad hann vildi leyfa þeim ad
eins ad snerta fald klæda sinna, en þeir, er hann
snertu, urdu heilbrigdir.

## 15. Kapítuli.

Jesús forsvarar Lærisveinana, og kénnir hvad þad
sé, er manninn saurgi; reynir og bænheyrir þá
kanversku konu; læknar marga, og mettar 4000
manns.

1. Um þessar mundir komu til Jesúm
Skriftlærdir og Faríseear frá Jerúsalem; þeir
spurdu hann: 2. því yfirtroda þínir Lærisvein-
ar setníngar Oldúnganna, er þeir ekki taka hand-
laugar, ádur enn þeir gánga til matar? 3. Jes-
ús svaradi þeim: því yfirtrodid þér Guds bod-
ord med ydar egin setníngum? 4. því Gud hef-
ir bodid og sagt: „heidra skaltu fødur þinn og
módur", og enn framar: „hvørr hann atyrdir
fødur sinn edur módur, hann er rétt dræpur".
5. En þér segid: segi nokkur vid foreldri sitt:
eigur þær, hvar med eg kynni ad hjálpa þér,
eru heit-fé, þá skuli hann ekki framar skyldur
ad annast fødur sinn edur módur, 6. og hafid
þér þanninn med setníngum ydrum ónýtt Guds
løgmál. 7. Hræsnarar! rétt hefir Spámadur-
inn Esajas spád um ydur, er hann segir: 8.
„Lýdur þessi heidrar mig med vørunum, 9. en
þeirra hjarta er lángt í burtu frá mér; en þeirra
dýrkan er hégómleg, er þeir kénna þad, sem eru
manna bodord". 10. Þá kalladi hann saman
fólkid og mælti: heyrid þér og skiljid: 11. ekki
kann þad manninn ad saurga, sem inn fer í
gégnum munninn, heldur þad, sem útfer af
munninum, þad saurgar manninn. 12. Þá
komu til hans Lærisveinar hans og mæltu: veitstú
af því, ad Faríseear hneyxludust, er þeir heyrdu
þetta? 13. hann mælti: allt hvad minn himn-
eski Fadir ekki hefir plantad, hlýtur ad uppræt-
ast. 14. Skiptid ydur ekki af þeim, þeir eru
blindir og blindra leidtogar; ef blindur leidir
blindan falla þeir bádir í gryfjuna. 15. Þá
bad Pétur hann, ad hann vildi útskíra þeim
þessa dæmisøgu. 16. Jesús mælti: erud og
þér enn þá svo skilníngslausir! 17. skiljid þér
ekki, ad allt þad, sem inn kémur um munninn

V. 1—20, sbr. Mark. 7, 1—23. V. 4. 2 Mós. 20, 12. 21, 17. V. 8. Es. 29, 13.

fer í magann, og fer burtu fyrir edlilega rás;
18. en þad er útfer af munninum, kémur frá
hjartanu, og þetta er þad, sem saurgar manninn.
19. Því frá hjartanu plaga ad koma illar hug-
renníngar, manndráp, hór, fridlulífi, þjófnadur,
ljúgvitni, íllmæli; 20. þetta er þad, sem saurg-
ar manninn; en ad gánga med óþvegnum hönd-
um til matar, saurgar engan.

21. Þadan fór Jesús í landsbygd Týrusar
og Sídonar. 22. Þá kom kona nokkur kan-
versk úr þeim hérødum, kalladi á hann og sagdi:
miskuna mér, Herra! þú nidji Davíds! dóttir
mín kvelst þúnglega af djøflinum; 23. en hann
svaradi henni engu ordi. Þá komu Lærisveinar
hans og bádu, ad hann veitti henni úrlausn,
þar hún kalladi eptir þeim. 24. Jesús mælti:
eg er ekki sendur nema til týndra sauda af Is-
raels ætt. 25. En hún kom, féll fram fyrir
honum og mælti: hjálpa þú mér, Herra! 26.
Jesús mælti: ekki sæmir ad taka braudid frá
børnunum og kasta því fyrir hundana. 27.
Satt er þad, Herra! mælti konan, þó eta hund-
arnir mola þá, sem falla af bordum drottna
þeirra. 28. Þá mælti Jesús: mikil er trú þín,
kona! verdi þér, sem þú vilt; og dóttir hennar
vard samstundis heilbrigd.

29. Þadan fór Jesús til sjáfarins í Galíleu,
gékk þar uppá fjallid og settist þar; 30. þá
kom til hans mikill fjøldi fólks, er hafdi med
sér halta menn og blinda, mállausa, handar-
vana og marga adra, og vørpudu þeim til fóta
Jesú, en hann læknadi þá; 31. svo fólkid undr-
adist, er þad sá mállausa tala, handarvana heila,
hallta heilfætta, og blinda alsjáandi, og prísadi
Israels Gud. 32. Þá kalladi Jesús á Læri-
sveina sína og mælti: eg aumka fólk þetta; í
þrjá daga hafa þeir nú med mér verid, og ekk-
ért til matar haft; en fastandi vil eg ekki láta
þá frá mér, ad ekki verdi þeir magnþrota á
veginum. 33. Þá mæltu Lærisveinar hans:
hvadan skulum vér taka svo mørg braud hér í
óbygdum, ad vér fáum slíkan fólksfjølda mett-
ad? 34. Jesús spurdi þá: hvad mørg braud
hafid þér? þeir søgdu: sjø, og fáeina smáfiska.
35. Þá baud hann fólkinu ad setjast nidur á
jørdina; 36. sídan tók hann þau sjø braud og
fiskana, gjørdi Gudi þakkir, braut þau og seldi
þau í hendur Lærisveinum sínum, en þeir fengu
þau fólkinu; 37. en þeir neyttu allir og urdu
mettir; sídan søfnudu þeir leifunum, og voru
þad sjø karfir fullar; 38. en þeir, er neytt høfdu,
voru fjórar þúsundir, auk kvenna og barna. 39.
Ad því búnu lét hann fólkid fara á burt, steig
á skip, og fór til Magdala hérada.

## 16. Kapítuli.

Jesús ávítar Faríseana, er æskja teikns, og varar vid
súrdeigi þeirra. Pétur játar, ad Jesús sé Guds
Sonur; Jesús segir fyrir sína pínu, og ávítar Pét-
ur; talar um sjálfs afneitun og sína tilkomu.

1. Þá komu til hans Faríseear og Sadúsear,
freistudu hans, og krøfdust, ad hann vildi sýna
þeim teikn af himni. 2. Hann mælti: ad
kvøldi, þegar rodi er á lopti, þá segid þér, þad
bodi gott vedurlag; 3. og snemma dags, þegar
loptid þá er raudt og ískyggilegt, segid þér, ad
þann dag muni verda illvidri. Þér, hræsnar-
ar! himinsins yfirbragd vitid þér ad dæma, en
kénniteikn þessara tíma viljid þér ekki athuga.
4. Þessi vonda og hórsama þjód beidist teikns,
og henni skal ekki teikn géfast, nema teikn Jón-
asar spámanns; og er hann hafdi þetta sagt,
skildist hann vid þá og fór þadan.

5. En er Lærisveinar hans fóru yfir um, høfdu
þeir gleymt ad taka braud med. 6. Þá mælti
Jesús: varid ydur vid súrdeigi þeirra Farísea

V, 21—28, sbr. Mark. 7, 24—30. V. 29. sbr. Mark 7, 31. V. 32—39. sbr. Mark. 8, 1—10. V. 1—14. sbr. Mark. 8, 11. 12. V. 4. sbr. Lúk. 11, 16—29. V. 5—12. sbr. Mark. 8, 13—21.

og Sadúsea. 7. Þá töludu þeir sín á milli:
ad hann mundi segja þetta sökum þess, ad þeir
ekki höfdu tekid braud med sér; 8. og er Jesús
vard þess var, mælti hann: því ætlid þér, trú-
arveikir! ad eg hafi sagt þetta sökum þess,
ad þér gleymdud ad taka braudin med; 9.
erud þér enn þá svo skilníngslausir? edur minn-
ist þér ekki þeirra fimm braudanna, handa
þeim fimm þúsundum manna, og hvörsu marg-
ar karfir þér höfdud þá afgángs? 10. Ekki
heldur þeirra sjö braudanna, handa þeim fjór-
um þúsundum, og hvörsu margar karfir þér
þá fylltud med leifar? 11. Því skynjid þér þá
ekki, ad eg sagdi ekki til ydar braudanna vegna,
ad þér skyldud varast súrdeig Farísea og Sa-
dúsea? 12. Þá skildu þeir, ad hann ekki
hafdi varad þá vid súrdeigi brauds, heldur vid
lærdómi Fariseanna og Sadúseanna.

13. Þegar Jesús kom í héröd Sesareu
Filippí, spurdi hann Lærisveina sína: hvörr
halda menn ad eg Mannsins Sonur sé? 14.
Þeir svörudu: sumir Jóhannes Skírara, adr-
ir Elías, og enn adrir Jeremías edur einn
af spámönnunum. 15. Þá mælti hann: en
hvörn hyggid þér mig vera? 16. Honum
svaradi Símon Pétur, og mælti: þú ert Krist-
ur Sonur ens lifanda (sanna) Guds. 17.
Jesús mælti: sæll ert þú, Símon Jónasson!
því mannleg vitska hefir þér ekki þetta auglýst,
heldur Fadir minn á himnum. 18. En eg
segi þér: ad þú ert Pétur (hellusteinn) a),
og á þessari hellu vil eg byggja mína sam-
kundu, og helvítis makt skal aldrei á henni sigr-
ast; 19. þér vil eg og fá lykla himnaríkis,
svo ad hvad sem þú bindur á jördu, skal á
himni bundid vera, og hvad þú leysir á jördu,
skal á himni leyst vera. 20. Sídan bannadi
hann Lærisveinum sínum ad segja nokkrum
þad hann væri Kristur. 21. Eptir þetta tók
Jesús ad auglýsa Lærisveinum sínum, ad sér
bæri ad fara til Jerúsalem, og lída þar margt
af Öldúngunum, presta-höfdíngjunum og þeim
skriftlærdu, líka líflátinn ad verda og upprísa
á þridja degi. 22. Þá tók Pétur hann afsíd-
is, átaldi hann og mælti: Gud nádi þig,
Herra! komi þetta aldrei fram vid þig! 23.
En Jesús snérist vid honum og mælti: vík
frá mér, Satan! þú ert mér til ásteytíngar.
Þú skynjar ekki Guds vilja, heldur manna. 24.
Þá mælti Jesús til Lærisveina sinna: hvörr,
sem vill fylgja mér, afneiti sjálfum sér, taki
sinn kross upp á sig, og fylgi mér eptir. 25.
Hvörr hann hyggur ad forda lífi sínu, mun
því týna, en hvörr, sem vogar því í hættu
fyrir mína skuld, mun fá því borgid. 26.
Því ad hvörju gagni kjæmi þad, þótt einn
eignadist allan heiminn, ef hann lidi tjón á
sálu sinni? eda hvad getur madurinn gefid
til lausnar sálu sinni? 27. Því Mannsins
Son mun koma med dýrd síns Födurs og
Englum sínum, og þá mun hann gjalda hvör-
jum sem einum eptir verkum sínum. 28.
Sannlega segi eg ydur: ad hér eru nú vid-
staddir nokkrir þeir, sem audnast mun ad lifa
svo leingi, ad þeir sjái Mannsins Son koma
til ríkis síns.

## 17. Kapítuli.

*Jesús ummyndast; talar um Elías; læknar túnglódan; segir fyrir pínu sína; geldur skatt.*

1. Ad sex dögum lidnum tók Jesús Pétur
og þá brædur Jakob og Jóhannes, og fór med
þeim einslega uppá eitt hátt fjall; 2. hér um-
myndadist hann ad þeim ásjáendum, og ásýnd
hans skein sem sól, en klædi hans voru fögur
sem ljós. 3. Og sjá, þá birtist þeim Móses

V. 13—28. Mark 8, 27—39. Lúk. 9, 18—27. V. 18. a. Sjá Jóh. 1, 42. V. 1—13, sbr. Mark. 9, 1—12. Lúk. 9, 28—36.

og Elías, sem voru ad tala vid hann; 4. þá mælti Pétur: gott er hér ad vera, Herra! ef þér svo sýnist, viljum vér reisa hér þrjár tjaldbúdir, eina handa þér, adra handa Móse og hina þridju handa Elíasi. 5. Medan hann var þetta ad tala, bar yfir þá bjart ský, og úr því heyrdist raust, er mælti: þessi er minn elskulegi Sonur, á hvörjum eg hefi velþókknun, honum skulud þér hlýda. 6. En er Lærisveinarnir heyrdu raustina, urdu þeir mjøg hræddir og féllu á ásjónur sínar. 7. Þá gékk Jesús til þeirra, snart vid þeim og mælti: standid upp og verid óhræddir; 8. en er þeir litudust um, sáu þeir engan nema Jesúm einan. 9. Og er þeir geingu ofan af fjallinu, bannadi Jesús þeim ad segja nokkrum sýn þessa, fyrr enn Mannsins Sonur væri risinn upp frá daudum. 10. Þá spurdu Lærisveinar hans hann ad: því segja þá hinir Skriftlærdu, ad Elías egi ádur ad koma? 11. Jesús mælti: Elías á ad vísu ádur ad koma og lagfæra allt. 12. En trúid mér, ad Elías er nú þegar kominn, en þeir kønnudust ekki vid hann, heldur breyttu vid hann, sem þeim líkadi; eins mun og Mannsins Sonur margt hljóta af þeim ad lída. 13. Þá skildu Lærisveinarnir ad hann hafdi þetta meint til Jóhannesar Skírara.

14. En er þeir komu til fólksins, gékk ad honum madur nokkurr, féll á kné fyrir honum, 15. og mælti: Herra! miskuna þú syni mínum, hann er túnglsjúkur og nærsta þúngt haldiun; opt fellur hann í eld og opt í vatn; 16. eg hefi fært hann til Lærisveina þinna, en þeir gátu hann ekki læknad. 17. Jesús mælti: ó þú trúarlausa og rángsnúna þjód! hvørsu leingi skal eg hjá ydur vera? hvørsu leingi skal eg þola ydur? færid mér hann híngad: 18. þá baud Jesús djøflinum burtu ad víkja; hann fór út af honum, og sveinninn vard samstundis heilbrigdur. 19. En er Jesús var einnsaman, komu Lærisveinar hans til hans og spurdu hann: því þeir ekki hefdu gétad rekid hann út? 20. Jesús mælti: sakir trúarleysis ydars. Sannlega segi eg ydur: ad þótt ydar trú ekki væri stærri enn mustards korn, þá mundud þér kunna ad bjóda fjalli þessu ad flytja sig í burtu hédan og þángad, og þad mundi hlýda ydur, og ekkért mundi ydur þá um megn vera. 21. En þetta djøfla-kyn verdur ekki útrekid nema med bænum og føstu.

22. Þá þeir voru í Galileu, sagdi Jesús þeim: ad mannsins Sonur mundi á manna vald framseldur verda; 23. ad þeir mundu taka hann af lífi, en ad hann á þridja degi mundi upprísa. Vid þetta urdu þeir mjøg hryggvir.

24. Nú er þeir komu í Kapernaum, komu þeir menn til Péturs, er skattgjaldsins áttu ad vitja, og mæltu: géldur meistari ydar skattgjaldid? 25. Hann kvad svo vera; og er Pétur kom heim, tók Jesús fyrr til orda og mælti: hvad lítst þér? Símon! af hvørjum plaga Koníngar í heimi þessum toll edur þegnskyldu ad krefja? hvørt af børnum sínum edur ødrum? 26. af ødrum, segir Pétur. Þá mælti Jesús: þá eru børnin frí. 27. En til þess vér ekki séum þeim til ásteytíngar, þá far þú til sjáfar, og kasta út aungli þínum, og tak þann fyrsta fisk, er þú dregur og opna munn hans; þar muntu finna tvípeníng a); þann skaltu gjalda fyrir mig og þig.

## 18. Kapítuli.

Jesús varar vid ofmetnadi og hneykslunum; kénnir

V. 14 — 21, sbr. Mark. 9, 13 — 28. Lúk. 9, 37 — 43. V. 20. Mark. 11, 23. Lúk. 17, 6. 1 Kor. 13, 2. V. 22 — 23, sbr. Mark. 9, 30 — 31. Lúk. 9, 22. 43 — 45. V. 27. *a*. Gjald til musterisins, var hálfur Sikill (eda einn peningur, *denarius*) fyrir mann tvítugan, og eldra, 2 Mós. 30, 13. ff; þad var hérumbil 24 til 32 sk. silfurs. Tvípeningur (*stater*) var heill sikill.

*ad hann sé kominn til ad frelsa hid tapada; hvørn-
inn þeir ættu ad hegda sér vid bródur sinn, er syndg-
adi, talar um sameinadar bænir, um ad fyrirgéfa,
og dæmisaga þar uppá.*

1. Um þetta leiti komu Lærisveinar Jesú til
hans og spurdu hann: hvørr þeirra mundi mest-
ur verda í himnaríki? 2. Jesús kalladi barn
eitt til sín, setti þad á medal þeirra, 3. og mælti:
sannlega segi eg ydur: nema þér takid sinna-
skipti og verdid børnum líkir, munnd þér ekki koma
í himnaríki. 4. En hvørr, sem er lítillátur eins
og barn þetta, hann mun mestur verda í himna-
ríki; 5. og hvørr, sem tekur vel á móti því-
líku barni fyrir mína skuld, þad er sem hann
taki vel á móti mér. 6. En ef nokkurr hneyxl-
ar einhvørn af þessum mínum umkomulausu
Lærisveinum, betra væri þad þeim, ad kvarnar-
steinn hengdist vid háls honum og honum væri
í haf søkt. 7. Ó! hvørsu vesæll er heimurinn
sakir hneyxlananna; þó kann ekki hjá því ad
fara, ad hneyxlanir komi, en vesæll er þó sá,
sem hneyxlinu veldur. 8. Ef hønd þín edur
fótur hneyxlar þig, þá hogg hann af og kasta
honum burtu, því betra er þér høltum og hand-
arvana ad ødlast sælu, enn ad þú hafir tvær
hendur og tvo fætur, og verdir í eilífan eld kast-
adur. 9. Og ef auga þitt hneyxlar þig, þá
stíng þad út og kasta því á burt, betra er þér
eineygdum eilífa sælu ad ødlast, enn ad þú haf-
ir bædi augu þín og þér verdi í helvítis eld kast-
ad. 10. Gjætid ydar, ad þér ekki forsmáid
nokkurn þessara umkomuleysíngja, því eg segi
ydur: ad Englar þeirra á himnum sjá auglit
míns himneska Fødur, 11. því til þess kom
Mannsins Sonur, ad hann frelsadi þad, er tap-
ad var. 12. Hvad lítst ydur? ef einhvørr
ætti hundrad sauda, og skyldi einn af þeim
villast frá; mundi hann ekki skilja þá níutíu
og níu eptir vid fjøllin, og fara ad leita þess,
er frá var villtur? 13. Og ef honum audn-
ast ad finna hann, þá trúid mér, ad hann
gledst meir yfir honum, enn yfir þeim níutíu
og níu, sem ekki villtust; 14. eins vill ydar
himneski Fadir ekki, ad nokkur þessara um-
komulausu skuli tapast. 15. Brjóti þinn bród-
ir nokkud á móti þér, þá vanda fyrst um vid
hann heimuglega, og ef hann hlýdir þér, hefir
þú hann frelstan. 16. En vilji hann þér ekki
hlýda, þá tak med þér einn edur tvo, svo ad
málid verdi samid fyrir tilløgur tveggja edur
þriggja votta, 17. en vilji hann þeim ekki
hlýda, þá seg þad samkundunni; og vilji hann
ekki samkundunni hlýda, þá haldtú hann, sem
væri hann heidíngi og skattheimtari; 18. eg
segi ydur þad fyrir sann: ad hvad þér bindid
á jørdu, skal á himni bundid vera, og hvad
þér leysid á jørdu, skal á himni leyst vera.
19. En framar segi eg ydur: ad ef tveir bid-
ja nokkurs samhuga, mun þad þeim af mín-
um himneska Fødur veitt verda; 20. hvar,
sem tveir eda þrír eru samankomnir í mínu er-
indi, þar vil eg vera midt á medal þeirra.

21. Þá gékk Pétur til hans og mælti:
hvørsu opt skal eg fyrirgéfa þeim, sem gjørir á
móti mér? er ekki nóg ad gjøra þad sjøsinn-
um? 22. Jesús mælti: ekki sjøsinnum, held-
ur sjøtíusinnum sjøsinnum. 23. Þar fyrir er
Guds ríki eins háttad og Konúngi einum, er
reikníngsskap vildi halda vid þjóna sína; 24.
en er hann tók reikníngin ad halda, var
færdur til hans madur sá, er honum var skyld-
ugur um tíu þúsund punda a); 25. og sem
hann nú ekki hafdi þau til ad borga med skuld
sína, baud Konúngurinn, ad selja skyldi sjálfan

V. 1 — 11. sbr. Mark. 9, 32 — 47. Lúk. 9, 46 — 48. 17, 1 — 2. V. 12 — 14. Sbr. Lúk. 15, 3 — 7. V. 15. Lúk. 17, 3. 3 Mós. 19, 17. V. 16. 5 Mós. 17, 6. V. 24. *a*. Talent, sem stendur i høfud textanum, og sem her útlegst pund, eru 6000 peningar (*denarii*, eda *drachmæ*), sja K. 17, 27, Skgr.

hann, konu hans og børn og alla eigu hans
ad borga þar med skuldina; 26. þá féll
þjóninn til fóta hans og mælti: umlíd þú
mig, Herra! allt skal eg þér lúka; 27. þá
aumkvadist Herrann yfir þenna þjón, lét hann
á burtu fara og gaf honum upp alla skuldina.
28. En er hann fór út, hitti hann einn af
sínum samþjónum, er honum var skyldugur um
hundrad peninga; þenna tók hann høndum,
tók fyrir kverkar honum og mælti: gjald þú
þad þú ert mér skyldugur; 29. en samþjón
hans féll fram ad fótum honum, og bad, ad
hann vildi umlída sig, og lofadi ad lúka hon-
um allt; 30. en hann vildi ekki, og setti
hann í myrkvastofu, uns hann hafdi skuldinni
lokid. 31. En er samþjónar hans sáu hvad
skédi, urdu þeir mjøg hriggvir. Fóru þeir
því og søgdu Konúngi allt hvad gjørst hafdi.
32. Þá lét hann kalla þenna mann fyri sig
og mælti: þú illi þegn! alla þessa skuld gaf
eg þér upp, sakir þess þú badst mig; 33.
hvørt sæmdi þér þá ekki einninn ad vera misk-
unsamur vid þinn samþjón, eins og eg var
miskunsamur vid þig? 34. Þá vard Kon-
úngurinn reidur, og baud ad selja hann í
hendur vardmønnum myrkvastofunnar, uns hann
hefdi goldid allt þad, er hann var skuldugur.
35. Þann veg mun og minn himneski Fadir
breyta vid ydur, ef þér ekki, hvørr og einn,
forlátid ødrum af heilum huga sín afbrot.

## 19. Kapítuli.

Jesús læknar; talar um hjónaskilnad og hjúskap; bless-
ar yfir úngbørn; talar vid hinn ríka úngling; talar
um hina ríku; hughreystir þá, sem yfirgéfi allt hans
vegna.

1. Nú er Jesús hafdi lokid þessari rædu,
veik hann burt úr Galíleu, og ferdadist til
þeirra hérada í Júdeu, sem liggja hinumeigin
Jórdanar; 2. þángad fylgdi honum mikill
fjøldi fólks, og læknadi hann þar þá af þeim,
sem sjúkir voru; 3. þá komu til hans Fari-
sear, vildu freista hans og spurdu: hvørt (gipt-
um) manni leyfdist ad skilja vid konu sína fyrir
hvørja eina søk? 4. Hann mælti: hafid þér
ekki lesid, ad Skaparinn gjørdi í øndverdu karl-
mann og konu, og mælti: 5. „fyrir þessa søk
skal madurinn yfirgéfa foreldra sína, en sam-
einast konu sinni, svo þau bædi séu einn mad-
ur"; 6. og þared þau eru nú sídan ekki tveir,
heldur einn madur, svo ber (giptum) manni ekki ad
skilja þad sundur, er Gud sameinadi. 7. Þeir
mæltu: því baud þá Móses ad géfa skilnadar-
skrá og skilja svo vid konu sína? 8. Hann
mælti: sakir mannvondsku ydar leyfdi Móses
ydur ad skiljast vid konur ydar, en í øndverdu
var þetta ekki þanninn. 9. Því trúid mér!
ad hvørr, sem skilur sig vid konu sína nema
fyrir hórdóms sakir, og geingur ad eiga adra,
sá drýgir hór; og hvør hann tekur sér konu
þá, sem skilid hefir vid mann sinn, sá drýgir
einninn hórdóm. 10. Þá mæltu Lærisveinar
hans: sé þannig ákomid milli manns og konu,
þá er ekki gott ad giptast. 11. Jesús svar-
adi: þetta a) géta ekki allir, heldur þeir einir,
sem þad er géfid; 12. því sumir eru fæddir
svo, ad þeir eru óhæfir til hjúskapar, adrir eru
géldtir af manna vøldum; þá eru og þeir, er
halda sér frá hjúskap fyrir Guds ríkis sakir;
gjøri þeir þad er géta.

13. Þá voru úngbørn færd til hans, til
þess ad hann legdi hendur yfir þau og árnadi
þeim góds; en Lærisveinar hans vildu varna
þeim þess. 14. Jesús mælti: leyfid børnun-
um ad koma til mín og hindrid þau ekki, því

V. 1 — 12, Mark. 10, 1 — 12. V. 5. 1 Mós. 2, 24. V. 7. 5 Mós. 24, 1. V. 11. *a.* Ad vera ógiptur,
V. 13 — 15. sbr. Mark 10, 13 — 16. Lúk. 18, 15 — 17.

mitt ríki heyrir slíkum til. 15. Og er hann hafdi þetta mælt, lagdi hann hendur yfir þau, og fór þadan. 16. Þá kom madur nokkur til hans, og tók svo til orda: gódi Meistari! hvad gott skal eg gjøra til þess ad eg ødlist eilíft líf? 17. Jesús mælti: því spyr þú mig ad því, hvad gott sé? einn er sá, sem gódur er. En ef þú vilt inngánga til lífsins, þá haldtu bodordin. 18. Hann spurdi: hvør helst? Jesús mælti: þessi, eigi skaltú mann vega; eigi hórast; eigi stela; eigi ljúgvitni bera; 19. heidra fødur og módur, og elska náúnga þinn sem sjálfan þig. 20. Þá mælti hinn úngi madur: þessa hefir eg alls gjætt frá barns-beini; hvørs er mér þá enn þá vant? 21. Jesús mælti: viljir þú algjørr vera, þá far og sel eigur þínar, og géf þær fátækum, þá muntu fjársjód eignast á himni; kom svo og fylg mér. 22. En er hinn úngi madur heyrdi þetta, vard hann hryggur, og fór í burtu; því hann var mjøg audugur ad fé. 23. Þá tók Jesús til orda vid Lærisveina sína: sannlega segi eg ydur: ad torveldt mun þad verda ríkum manni ad inn gánga í himnaríki a); 24. og enn framar segi eg ydur: ad audveldara er úlfaldanum ad gánga í gégnum nálar-augad, enn ríkum manni inn í Guds ríki. 25. Nú er Lærisveinar hans heyrdu þetta, hnykti þeim mjøg vid, og mæltu: hvørr gétur þá ordid hólpinn? 26. Þá leit Jesús til þeirra og mælti: mønnum er þetta ad vísu ómøgulegt b), en Gudi er einginn hlutur ómáttugur. 27. Þá tók Pétur til orda: vér yfirgáfum allt og fylgdum þér, hvílík laun munum vér hér fyrir hljóta? 28. Jesús mælti: sannlega segi eg ydur: ad þér, sem hafid fylgt mér, munud í endurskøpuninni, þá Mannsins Sonur situr á sínum veldis-stóli, einninn sitja á tólf hásætum, og dæma þær tólf kynkvíslir Ísraels; 29. og hvørr helst, sem yfirgéfid hefir hús, brædur, systur, fødur, módur, konu, børn edur eignir fyrir mínar sakir, mun fá hundradfaldt og ødlast eilíft líf. 30. En margir þeir, sem fyrstir eru c), munu verda sídastir, og þeir sídustu d) fyrstir.

## 20. Kapítuli.

Dæmisaga um verkamennina í víngardinum; Jesús fyrirsegir sína pínu; ávítar sonu Sebedeusar; læknar tvo blinda vid Jeríkó.

1. Því ad Guds ríki er líkt þeim húsfødur, er fór snemma morguns ad leigja verkamenn í víngard sinn; 2. og er hann hafdi samid vid þá um einn peníng fyrir dagsverkid, vísadi hann þeim í víngard sinn. 3. Sídan gékk hann út um þridju stundu e), og leit nokkra á torgi idjulausa. 4. Hann sagdi til þeirra: farid þér og einninn í víngard minn, og mun eg géfa ydur laun ad maklegleikum. 5. Þeir fóru í víngardinn. Hann gékk og út á sjøttu og níundu stundu og gjørdi, sem fyrr. 6. Um elleftu stundu kom hann og út, og fann enn nokkra idjulausa; hann spyr: því þeir stædu þar allan daginn og hefdust ekki ad. 7. Þeir kvádu engan hafa leigt sig. Þá mælti hann: farid þér einninn í víngard minn, og skulud þér fá hvad rétt er til launa. 8. Nú er kvøld var komid, segir eigandi víngardsins verkstjóra sínum: kalla þú verkamennina og gjalt sérhvørjum þeirra daglaunin, og tak til á hinum síd-

V. 16—30. sbr. Mark. 10, 17—31. Lúk. 18, 18—30. V. 23. *a.* Þ. e: fá inngaungu í Krists ríki. V. 26. *b.* Nefnil. án Guds adstodar. V. 30. *c,* Þ. e. þeir þykjast unnid hafa til mestu launa af Gudi. *d.* Þeir sídustu, þeir sem til eingra launa þykjast unnid hafa, heldur einúngis treysta Guds nád. V. 3. *e.* Gydingar byrjudu daginn á sólar uppkomu, sem í Gydingalandi er alltaf nálægt midjum morgni, og tøldu þadan frá 12 stundir til sólarlags, sem þar er alltaf nálægt midjum aptni; þessvegna er hin 3. stund dagmál, 6. stund hádegi, 9. stund nón, og s. fr.

ustu og enda á hinum fyrstu. 9. Þá komu þeir, er nær midjum aptni voru leigdir, og fékk hvørr einn pening; 10. en er þeir komu, er fyrstir voru leigdir, hugdu þeir, ad þeir mundu meiri laun fá; en þeir feingu líka hvørr einn pening; 11. og er þeir høfdu hann medtekid, tóku þeir ad møgla í móti húsbóndanum, 12. og spurdu: því hann gjørdi þessa sídustu, sem ekki hefdu erfidad nema eina stund dags, jafna þeim, er allan daginn hefdu stadid sveittir ad þúngu erfidi? 13. Þá mælti hann til eins þeirra: kjæri! ekki gjøri eg þér rángt til; høfum vid ekki samid um einn pening? 14. taktú hvad þitt er, og far hédan; en þessum, er sídast kom, vil eg gjalda eins og þér; 15. edur, er eg ekki sjálfur fjár míns rádandi? edur sjerdú ofsjónum yfir því, ad eg em gódgjarn? 16. Þannig munu hinir sídustu verda hinir fyrstu, og hinir fyrstu sídastir; því margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

17. Sídan fór Jesús upp til Jerúsalem; þá tók hann þá tólf Lærisveina á einmæli á leidinni og mælti þannig: 18. nú førum vér til Jerúsalem, og þar mun Mannsins Sonur framseldur verda høfudprestunum og hinum skriptlærdu, og þeir munu hann til dauda dæma, 19. og framselja hann heidíngjum, ad þeir hædi hann, húdstrýki og krossfesti; en á þridja degi mun hann upprísa.

20. Þá kom til hans módir þeirra Sebedeussona med sonum sínum, og laut honum, sem hún vildi beidast nokkurs af honum; 21. hann spurdi þá: hvad viltú? hún svaradi honum: láttu þessa tvo sonu mína sitja sinn á hvørja hlid þér í ríki þínu. 22. Jesús svaradi: þér vitid ekki hvørs þér bidjid; gétid þér drukkid þann bikar, sem eg mun drekka? þeir kvádust mundu þad géta. 23. Þá sagdi hann til þeirra: þér munud ad sønnu drekka minn bikar, en þad, ad sitja mér til hægri og vinstri handar, kann eg ekki ad veita nema þeim, er Fadir minn hefir þad fyrirhugad. 24. En er þeir tíu heyrdu þetta, þyktust þeir vid þá brædur. 25. Þá kalladi Jesús þá til sín og mælti: ydur er kunnugt, ad Konúngar jardarinnar drottna yfir þegnum sínum, og gjædíngar þeirra sýna makt sína á þeim; 26. en ydar á medal skal þetta eigi svo vera, heldur skal hvørr sá af ydur, er mestur vill heita, vera ydar þjónustumadur; 27. og hvørr hann vill vera ydar fremstur, sé hann þjón ydar; 28. eins og Mannsins Sonur kom ekki til þess ad adrir skyldu honum þjóna, heldur ad hann þjónadi ødrum og léti líf sitt mørgum til lausnar.

29. Nú er þeir fóru úr Jeríkós borg, fylgdi honum mikill fjøldi fólks. 30. Þá sátu vid veginn tveir menn blindir, og er þeir heyrdu ad Jesús fór þar um, kølludu þeir og mæltu: Herra! nidji Davíds, miskuna þú okkur! 31. en fólkid baud þeim ad þeir þegdu, en þess meir kølludu þeir og søgdu: Herra! nidji Davíds, miskuna þú okkur! 32. Þá stód Jesús vid, kalladi á þá og mælti: hvad viljid þid, ad eg gjøri vid ykkur? 33. þeir mæltu: þad, Herra! ad vér verdum sjáandi. 34. Jesús aumkadist þá yfir þá og hrærdi vid augum þeirra, og þá feingu þeir strax sjón, og fylgdu honum.

## 21. Kapítuli.

Jesús rídur inn í Jerúsalem, og hreinsar musterid; læknar; forsvarar børnin, sem prísudu hann; lætur fíkjutré visna; forsvarar sinn myndugleika; segir dæmisøguna um þá tvo sonu, og um víngardsmennina; Prestarnir vilja leggja hendur á hann.

1. Þegar þeir nú nálgudust Jerúsalem og komu til Betfage hjá vidsmjørs fjallinu, þá sendi Jesús frá sér tvo af Lærisveinum sínum og

V. 17—19. Mark. 10, 32—34. V. 20—28. Mark. 10, 35—45. V. 29—34, sbr. Mark. 10, 46—52. Lúk. 18, 35—43. V. 1—17. sbr Mark. 11, 1—11. 15—19. Lúk. 19, 29—40.

mælti: 2. farid þid í þorp það, er gagnvart
ykkur er, og strax munud þid finna øsnu bundna
og fola hjá henni, leysid þau og færid mér; 3.
en verdi nokkud til ydar sagt, þá segid: ad Herra
ykkar þurfi þeirra vid; og þá mun þeim strax
verda sleppt vid ydur. 4. Allt þetta skédi, svo
ad sannadist það, er spámadurinn segir: 5.
„Segid Síons dóttur a): Sjá! þinn Konúngur
kémur til þín hógvær, rídandi øsnu og fola
hennar." 6. Lærisveinarnir fóru leidar sinnar
og gjørdu, sem Jesús hafdi fyrir þá lagt, 7.
færdu þángad øsnuna og folann, og løgdu á þau
klædi sín, en hann steig á bak; 8. en flestir af
fólkinu breiddu klædi sín á veginn; adrir hjuggu
lim af trjánum, og strádu því á brautina. 9.
En múgurinn, er undan fór og á eptir fylgdi,
kalladi og sagdi: styrk þú, Drottinn! þenna
nidja Davíds! blessadur sé þessi, sem kémur í
umbodi Drottins! hjálpa þú, sem á himninum
byggir! 10. Nú er þeir komu inn í Jerúsalem,
vard allur borgar-lýdur uppvægur og spurdi:
hvørr þessi væri? 11. en fólkid, er honum
fylgdi, sagdi: þessi er Spámadurinn Jesús frá
Nasaret í Galíleu. 12. Þá fór Jesús inn í
musteri Guds, og rak út þadan alla þá, sem
seldu þar og keyptu; hann hratt og nidur bordum
þeirra, er med penínga okrudu, og stólum þeirra,
er dúfur seldu, 13. og mælti vid þá: skrifad er:
„ad mitt hús skuli vera bæna-hús b), en þér
hafid gjørt það ad ræníngja-bæli c)." 14. Þá
voru færdir til hans blindir og haltir í must-
erinu og hann læknadi þá. 15. En er þeir
ædstu prestar og hinir skriptlærdu sáu þau und-
ur, er hann gjørdi, og ad børnin kølludu í
musterinu og søgdu: styrk þú, (Drottinn)!
þenna nidja Davíds! þá reiddust þeir 16. og
søgdu vid hann: heyrir þú hvad þessir segja?
sannlega heyri eg það, sagdi Jesús; en hafid
þér ekki lesid: „þú hefir tilreidt þér lof af
munni barna og brjóstmylkínga." 17. Ad svo
mæltu: veik hann frá þeim og fór úr borginni
til Betaníu, og var þar um nóttina.

18. En ad morgni, er hann fór aptur til
borgarinnar, tók hann ad húngra; 19. þá leit
hann eitt fíkjutré er stód vid veginn; þángad
gékk hann, en fann ekkért á því nema blødin
tóm; þá mælti hann vid tréd: aldrei vaxi á þér
ávøxtur framar; en fíkjutréd visnadi strax. 20.
Og er Lærisveinar hans sáu það, undrudust þeir
og mæltu: hvørsu skjótt visnadi ekki fíkjutréd?
21. Þá tók Jesús til orda og mælti: sann-
lega segi eg ydur, ef ad þér trydud og efudust
ekki, þá mundud þér ekki einúngis gjørt géta
þetta vid fíkju tréd, heldur ef þér segdud fjalli
þessu ad lypta sér upp og kasta sér á haf út,
þá mundi það verda. 22. Því allt það, hvørs
þér trúar-øruggir beidist, mun ydur veitt verda.

23. Nú er hann kom í musterid, søfnudust til
hans hinir ædstu Prestar og Oldúngar lýdsins,
og spurdu hann: med hvørjum myndugleika
hann gjørdi þetta, edur hvørr honum hefdi géfid
þetta vald? 24. Jesús mælti: eg vil spyrja yd-
ur eins hlutar, og ef þér segid mér hann, mun
eg og segja ydur, med hvørjum myndugleika eg
gjøri þetta. 25. Hvørr gaf Jóhannesi vald
ad skíra? hvørt heldur Gud edur menn? þeir
íhugudu þetta og ætludu, ad ef þeir segdu ad
Gud hefdi géfid honum þetta vald, þá mundi
hann spyrja: því þeir ekki hefdu trúad honum?
26. en ad það hafi verid af mønnum, þordu
þeir ekki fyrir alþýdu ad segja; því allir hefdu
það fyrir satt, ad Jóhannes hefdi Spámadur
verid: 27. Þá svørudu þeir: ad þeir vissu það
ekki. Jesús sagdi þá og vid þá: þá mun eg

---

V. 2. Jóh. 12, 14—15. V. 4. Sak, 9, 9. V. 5. *a.* Þ. e. Jerúsalem. V. 9. Sálm. 118, 24—26. V. 13. *b.* Esa. 56, 7. *c.* Jer. 7, 11. V. 16. Sálm. 8, 3. V. 18—22, sbr. Mark. 11, 12—14. 20—24. V. 23—27. Mark. 11, 27—33. Lúk. 20, 1—8.

ekki heldur segja ydur med hvørjum myndug=
leika eg gjøri þetta. 28. En hvad sýnist ydur
um þad: ad einn madur átti tvo sonu; hann
gékk til annars og sagdi: sonur! far þú í dag
og vinn verk í víngardi mínum; 29. en hann
kvadst hvørgi mundu fara; en eptirá idradist
hann þess, og fór til verksins. 30. Þá gékk
fadirinn til hins, og sagdi eins vid hann; hann
játti því, en fór þó hvørgi. 31. Hvørr af
þessum tveimur gjørdi nú vilja fødursins? þeir
svørudu: sá fyrri. Þá mælti Jesús: trúid mér,
ad skattheimtendur og pútur munu fyrr koma í
Guds ríki enn þér; 32. því Jóhannes kom og
vísadi ydur á veg rádvendninnar, en þér hlýdd=
ud honum ekki, en skattheimtarar og pútur hlýddu
honum; og þótt þér sæud þad, snérud þér yd=
ur þó ekki til betrunar, svo ad þér festud trú
til hans kénnínga. 33. Eg vil segja ydur adra
dæmisøgu: Húsbóndi nokkurr plantadi víngard,
hlód gard um hann, þar gjørdi hann vínpressu
og bygdi hús mikid; sídan leigdi hann víngard=
inn víngards=mønnum og fór sjálfur úr landi;
34. en er leid ad vínberjalesturs tímanum, sendi
hann þjóna sína til víngards=mannanna, ad
veita ávøxtunum móttøku. 35. En víngards=
mennirnir tóku þá høndum, og børdu suma, adra
drápu þeir og nokkra lømdu þeir grjóti. 36.
Þá sendi húsbóndinn í ødru sinni adra þjóna,
fleiri enn þá fyrri; en þeir breyttu eins vid þá.
37. Seinast sendi hann til þeirra son sinn, því
hann ætladi, ad þeir mundu þó bera virdíngu
fyrir syni sínum; 38. en er víngards=mennirn=
ir sáu hann, tóku þeir rád sín saman, og mæltu:
þetta er erfínginn, tøkum hann af lífi, svo vér
náum arfi hans. 39. Sídan tóku þeir hann
høndum, drógu hann út úr víngardinum og
drápu hann. 40. Hvørninn ætlid þér nú, ad
eigandi víngardsins muni breyta vid þessa vín=
gards=menn nær hann kémur? 41. þeir mæltu:
illmennum þessum mun hann tortína; en vín=
gard sinn mun hann leigja ødrum víngards=
mønnum, þeim er gjalda honum ávextina í rétt=
ann tíma. 42. Jesús mælti: hafid þér aldrei
lesid í bókinni helgu: „steinn sá, er húsa=smid=
ir útskúfudu, hann er nú hornsteinn ordinn,
af Gudi er hann til þess kjørinn, þótt oss
undarlegt þyki". 43. Þess vegna segi eg yd=
ur þad fyrir satt, ad Guds ríki mun frá
ydur takast, og gésast þjód þeirri er ber því
verduga ávexti. 44. Hvørr hann fellur á stein
þenna, mun sig slasa, en á hvørn ad steininn
fellur, þann mun hann merja. 45. En er hin=
ir ædstu Prestar og Faríseарnir heyrdu þessar
dæmisøgur, skildu þeir, ad hann meinti þetta til
þeirra; 46. og vildu leggja hendur á hann, en
þordu þad þó ekki fyrir alþýdunni, því allir
héldu hann ad vera Spámann.

## 22. Kapítuli.

Jesús segir dæmisøguna um brúdkaup eins Kóngs sonar; úrskurdar, ad gésa skuli Keisaranum skatt, hnekkir mótmælum Sadúseanna gégn upprisunni; kénnir, hvort sé ædsta bodordid í løgmálinu, og ad Kristur sé ekki einúngis nidji Davíds, heldur og einninn hans Drottinn.

1. Þá hóf Jesús enn ad kénna þeim í dæmi=
søgum og mælti: 2. himnaríki er líkt þeim kon=
úngi, er héldt brúdkaup sonar síns; 3. og sendi
út þjóna sína ad bjóda bodsgéstunum til brúd=
kaupsins, en þeir vildu ekki koma. 4. Þá sendi
hann í ødru sinni adra þjóna, og baud þeim
segja: ad hann hefdi búid veitsluna, ad uxar
hans og alid fé væri slátrad, og allt til reidu,
og ad þeir skyldu koma til brúdkaupsins. 5.
En þeir skeyttu því ekki, fóru burt, einn á akur
sinn, og annar til sinnar kaupverdslunar; 6. en
sumir tóku sendimennina og smánudu þá og drápu.

V. 33—42. Mark. 12, 1—12. Lúk. 20, 9—19. V. 42. Sálm. 118, 22. 23. V. 44. Es. 8. 14, 15. V. 1—14. sbr. Lúk. 14, 16—24.

7. En er Konúngurinn heyrdi þetta, vard hann
reidur, sendi lid sitt, og lét taka mordíngja þessa
af lífi, en brenna borg þeirra. 8. Sídan mælti
hann vid þjóna sína: brúdkaupid er ad sönnu
búid, en þeir, sem bodnir vóru, vóru þess eigi
verdir; 9. farid því út á gatna-mót, og bjódid
þeim, er þér finnid, til brúdkaupsins. 10.
Þeir gjördu, sem hann mælti fyrir, og söfnudu
saman öllum, sem þeir fundu, vondum og góð-
um, svo veitslusalurinn vard alskipadur bods-
géstum. 11. En er konúngurinn kom ad sjá
gésti sína, sá hann þar mann nokkurn, er ekki
var klæddur brúdkaupsklædi. 12. Hann mælti
vid hann: því komst þú híngad, kjæri! og klædd-
ir þig ekki brúdkaupsklædum? en madurinn
ansadi eingu. 13. Þá baud konúngurinn þjón-
um sínum: fjötrid hann á höndum og fótum,
og kastid honum út í myrkrid fyrir utan, hvar
ed vera mun grátur og gnístur tanna. 14.
Því margir eru kalladir, en fáir útvaldir.

15. Þá báru Fariséar ráд sín saman
um þad, hvörninn þeir kynnu ad veida hann í
ordum, 16. og sendu til hans nokkra af Læri-
sveinum sínum og fylgdarmönnum Heródesar,
er spyrja skyldu á þessa leid: Meistari! oss
er þad kunnugt ad þú ert sannordur og kénnir
Guds vilja einlæglega, þú mælir ekki, sem hvör
vill heyra, og fer ekki ad mannvyrdíngum; 17.
seg oss nú hvad þér sýnist, hvört þad leyfist
ad gjalda Keisaranum skatt edur ekki. 18. En
er Jesús skildi sláttskap þeirra, mælti hann:
því freistid þér mín, hræsnarar? 19. sýnid
mér skattpeníngin. Þeir færdu honum þá
peníngin. 20. Þá spurdi hann hvörs ad
væri mynd sú og nafn, er á honum stód; 21.
Þeir sögdu honum þad væri Keisarans. Þá
mælti Jesús vid þá: gjaldid þá Keisaranum
hvad Keisarans er, og Gudi hvad Guds er. 22.
En er þeir heyrdu þad, undrudust þeir, yfir-
gáfu hann og fóru þadan.

23. Þenna sama dag komu til hans Sadúsе-
ar, hvörjir ad neita upprisu framlidinna, lögdu
fyrir hann þessa spurníngu, 24. og sögdu:
Meistari! Móses baud: „ad ef nokkurr dæi
barnlaus, þá skyldi bródir hans fá konu hans
til þess ad vidhalda ættlegg bródur síns". 25.
En hér voru med oss sjö brædur; hinn fyrsti
gékk ad eiga konu og deydi barnlaus, eptirlét
konu sína bródur sínum; 26. eins hinn annar
og þridji, allt til þess sjöunda; 27. en seinast
þeirra allra dó konan. 28. Hvörs þessara
sjö eiginkona skal hún verda í upprisunni, því
þeir höfdu átt hana allir? 29. Jesús svaradi
þeim: þér villist og skiljid ekki Ritnínguna,
né mátt Guds; 30. því í ödru lífi munu
hvörki karlar né konur giptast, heldur eru þeir
eins og englar Guds á himnum. 31. En
hvad vidvíkur upprisu framlidinna, hvört hafid
þér þá ekki lesid þad, er Gud hefir sagt ydur:
32. „Eg er Gud Abrahams, Guds Isaaks og
Gud Jakobs". Nú er Gud ekki Gud daudra
heldur lifendra; 33. en er fólkid heyrdi þetta,
undradist þad hans kénníngu.

34. Nú er Fariséar vissu, ad hann hafdi
gjört Sadúsea ordlausa, héldu þeir ráд sitt;
35. og stód þá upp lögvitríngur nokkur til ad
freista hans, og sagdi: 36. Meistari! hvört er
þad ædsta bod í lögmálinu? Jesús svaradi
honum: 37. „elska skaltú Drottinn Gud þinn
af öllu hjarta, allri sálu þinni og öllu hugskoti
þínu". 38. Þetta er hid ædsta og helsta
bod, 39. og þessu líkt er hitt: „elska náúnga
þinn sem sjálfan þig". 40. Í þessum tveim-

V. 15—33. sbr. Mark. 12, 13—27. Lúk, 20, 20—40. V. 17, sbr. Post. 5, 37. V. 23. Post. Gb, 23, 6. 8. V. 24. 5 Mós. 25, 5—10. V. 32. 2 Mós. 3, 6. 15. V. 34. Mark. 12, 28. V. 35. Lúk. 10, 25. V. 37. 5 Mós. 6, 5. V. 39. 3 Mós. 19, 18.

ur bodum er innifalid allt þad er Móses og
Spámennirnir hafa kénnt.
41. En er Fariséar voru samankomnir, spurdi
Jesús þá ad og mælti: 42. hvørrar ættar ætlid
þér ad Kristur muni vera? þeir svørudu: af Da-
víds ætt. 43. Jesús mælti: því kallar Da-
víd hann þá Drottinn í andagift sinni, er hann
segir: 44. „Drottinn mælti svo vid minn
Drottinn: sit þú mér til hægri handar, þáng-
ad til eg hefi gjørt óvini þína ad skør fóta
þinna". 45. Þared nú Davíd kallar hann
Drottinn, hvørninn kann hann þá hans nidji
ad vera? 46. Þessu gat einginn einu ordi svar-
ad, eigi heldur dirfdist nokkur upp frá þessu
ad spyrja hann nokkurs.

## 23. Kapítuli.

Jesús býdur fólkinu ad hlýda kénníngu Fariséanna, en ekki breyta eptir þeim; ávítar Fariséana; fyrirsegir Jerúsalems eydileggíngu.

1. Þá hóf Jesús svo rædu sína vid Læri-
sveina sína og lýdinn: 2. á Mósis stóli sitja
skriptlærdir og Fariséar; 3. øllu því, er þeir
bjóda ydur, skulud þér hlýda, en eptir framferdi
þeirra skulud þér ekki breyta, því þeir bjóda
þad, er þeir sjálfir ekki halda. 4. Þeir binda
mønnum byrdar þúngar og ørdugar ad bera
og leggja þeim á herdar, en sjálfir vilja þeir
ekki hræra vid þeim fíngri sínum. 5. Allt hvad
þeir gjøra, fremja þeir til hróss sér, þeir stækka
minnisblød sín og breidka føgur klæda sinna. 6.
Þeir vilja efstir sitja ad bodi hvørju, og í sam-
kundum; 7. þeir girnast ad láta kvedja sig á
torgum og meistarar ad nefnast. 8. En þér
skulud ekki láta ydur meistara kalla, því einn
er ydar meistari, en þér erud allir brædur. 9.
Engan skulud þér heldur fødur ydar kalla í
heimi þessum; því einn er Fadir ydar, sá á
himnum er. 10. Ekki heldur skulud þér láta
ydur frædara nefna, því einn er ydar Frædari,
sem er Kristur. 11. Hvørr, sem vill vera yd-
ar mestur, hann sé þjón hinna; 12. því hvørr
sig sjálfan upphefur, mun nidurlægjast, en hvørr
sig sjálfan lítillækkar, hann mun upphafinn verda.
13. Vei ydur skriptlærdum og Faríseum! þér
hræsnarar! sem féflettid ekkjur undir yfirhylm-
íngu lángra bæna, þar fyrir mun og ydar
hegníng þýngri verda. 14. Vei ydur skript-
lærdum og Faríseum! þér hræsnarar! sem læsid
fyrir mønnum himnaríki, og hirdid sjálfir ekki
um ad inngánga í þad; en leyfid heldur ekki
inngaungu þeim, sem hennar leita. 15. Vei
ydur skriptlærdum og Faríseum! þér hræsnar-
ar! sem farid um lønd øll og høf til þess ad
gjøra menn ad Gydíngum, og ad því búnu
gjørid þér þá ad barni helvítis, hálfu verri enn
þér sjálfir erud. 16. Vei ydur, þér blindu
leidsøgumenn! sem kénnid: ad þótt einn sverji
vid musterid, þá sé sá eidur ógildur, en ef ein-
hvørr sver vid gullid, sem er í musterinu, þá
sé sá eidur gildur. 17. Þér dárar og blind-
ir! hvørt er meira verdt? gullid edur musterid,
sem gullid helgar? 18. og enn framar segid
þér: ad hvørr, sem sver vid altarid, þá sé sá
eidur ónýtur, en hvørr, sem sver vid fórnina á
altarinu, þá sé hann skyldur ad halda eid sinn.
19. Þér heimskir og blindir! hvørt er þá meira
verdt, fórnin edur altarid, sem fórnina helgar?
20. hvørr hann nú sver vid altarid, sver bædi vid
þad og vid allt, sem á því er, 21. og hvørr
hann sver vid musterid, sver bædi vid þad og
vid hann, sem býr í því; 22. og hvørr, sem
sver vid himininn, hann sver vid hásæti Guds
og vid þann, er í því situr. 23. Vei ydur,
þér Fariséar og skriptlærdir! þér hræsnarar,
sem gjaldid tíund af myntu, anís og kúmeni,

V. 41. Mark. 12, 35. Lúk. 20, 41. V. 43. Sálm. 110, 1. V. 1 — 4. sbr. Lúk. 11, 46. V. 5 — 7. sbr. Mark. 12, 38 — 39. Lúk. 20, 45 — 46. V. 5. 4 Mós. 15, 38 — 40.

en hirdid ekki um þad í løgmálinu, sem mest á rídur a), sem er réttvísi, miskunsemi og trú; þetta bar ydur ad gjøra, en hitt ekki ógjørt ad láta. 24. Þér blindir leidsøgumenn! sem frásíid fluguna, en svelgid úlfaldann. 25. Vei ydur, þér skriptlærdir og Fariséar, þér hræsnarar! sem fægid utan bikara ydra og bord-diska, sem innra fullir eru ráns og ofneitslu. 26. Þú blindur Faríséi, fæg fyrst bikar þinn og borddisk innan, þá mun hann og utan hreinn verda. 27. Vei ydur, þér Fariséar og skriptlærdir, þér hræsnarar! líkir erud þér kølkudum grøfum framlidinna, sem ad utanverdu eru ad sønnu fallegar útlits, en innan eru þær fullar med daudra manna bein og allskyns óhreinindi; 28. þannig sýnist þér gódir hid ytra fyrir manna (sjónum), en innan erud þér fullir hræsni og óréttinda. 29. Vei ydur, þér skriptlærdir og Fariséar! þér hræsnarar, sem uppbyggid legstadi spámannanna og prýdid leidi helgra manna og segid: 30. ad hefdud þér lifad á døgum fedra ydvarra, skyldud þér ekki hafa verid med þeim ad lífláti spámannanna; 31. þannig vidurkénnid þér sjálfir, ad þér séud nidjar þeirra, sem tóku spámennina af lífi; 32. bætid nú líka því ofan á, sem fedur ydar brast á í vondskunni! 33. Þér høggormar, þér nødrukyn! hvørninn gétid þér umflúid helvítis straff? 34. Því sjá! eg mun senda til ydar spámenn, spekínga og skriptlærda, suma munud þér lífláta og á kross festa, suma munud þér húdstrýkja í samkunduhúsum ydrum, og hrekja úr einni borg í adra. 35. Þannig munud þér sekir verda um líflát allra Guds manna sem saklausir eru af døgum teknir, frá mordi Abels ens góda, allt til Sakaríasar Barakíassonar, hvørn þér drápud á milli altaris og musteris. 36. Sannlega segi eg ydur, ad allt þetta mun koma yfir þessa kynslód.

37. Jerúsalem, Jerúsalem! þú sem líflætur Spámennina, og grýtir þá sem til þín eru sendir, hvørsu opt hefi eg viljad samansafna børnum þínum, eins og þegar hænan safnar úngum sínum undir vængi sér; en þér hafid ekki viljad þad. 38. Þar fyrir skal ydar bústadur eydilagdur verda. 39. En þad segi eg ydur fyrir satt: ad þér munud ekki sjá mig hédanaf, þángad til þér segid: blessadur sé sá, sem kémur í Drottins erindi!

## 24. Kapítuli.

Jesús spáir um eydileggíngu Jerúsalems og heimsins, og um andvaraleysi manna, og rædur til árvekni.

1. Nú er Jesús gékk út úr musterinu, þá sýndu Lærisveinar hans honum byggíngu þess; 2. þá mælti hann: ver ydur þetta (mjøg) í augum? sannlega segi eg ydur: allt þetta, mun svo øldúngis eydilagt verda, ad ekki mun þar steinn yfir steini vera.

3. En þegar hann hafdi sett sig nidur á vidsmjørs vidar fjallinu, gengu Lærisveinar hans til hans einslega og søgdu: seg oss hvønær þetta mun framkoma, og hvørt vera mun merki þinnar tilkomu og enda veraldarinnar. 4. Jesús mælti: varist þad ad enginn villi ydur, 5. því margir munu koma undir mínu nafni, og segja sig Krist ad vera, og munu marga afvega leida. 6. En nær þér fréttid styrjøld og ófridar tídindi, þá sjáid til, ad þér skélfist ekki; því þetta hlýtur allt ad ské, en þó er enn ekki endirinn kominn, 7. því ein þjód mun rísa mót annari, og eitt ríki mót ødru, þá mun og í ýmsum stødum vera hallæri, drepsótt og

V. 23. a. Ordid í textanum, *Barytera;* þýdir badi þad, sem mest á ridur, og lika þad sem þýngst er ad uppfylla, sbr. Lúk. 11, 42. V. 29 — 36, sbr. Lúk. 11, 47 — 51. V. 34. sbr. Lúk. 11, 49. 50. V. 37 — 39, sbr. Lúk. 13, 34 — 35. K. 24 og 25, sbr. Mark. 13. Lúk. 21, 5 — 36.

jardskjálftar. 8. Þetta er byrjan eymdanna. 9. Þá munu menn selja ydur í ánaud og af lífi taka, og allar þjódir munu ydur hata fyrir mínar sakir. 10. Margir munu þá kasta trú sinni, hvørr annan framselja og ad hatri hafa; 11. þá munu og uppkoma margir falskénnendur, þeir er marga munu afvega leida, 12. og sakir vaxandi rángsleitni mun kjærleiki margra kólna. 13. En hvørr, sem stødugur stendur allt til enda, hann mun hólpinn verda. 14. En kénníngin um Guds ríki mun um gjørvallan heim bodud verda, svo fyrir øllum þjódum vitnist þar um; og þá mun endirinn koma. 15. En nær þér sjáid vidurstygd eydileggíngarinnar í þeim helga stad a), um hvørja Daníel spáde hefir (hann, sem les þad géfi gaum ad því), 16. þá flýi hvørr sá, sem í Júdeu er, til fjalla; 17. hvørr sá, sem er á húsþaki, varist hann ad fara ofan í hús sitt til ad taka nokkud þadan. 18. Hvørr hann er á akri, snúi hann ekki til baka ad taka klædi sín. 19. Æ! vesælar eru á þeim tíma konur þúngadar, og þær, er børn hafa á brjósti. 20. En bidjid þér, ad ydar flótti verdi ekki um vetur, edur á hvíldar-degi; 21. því þá mun vera svo stór hørmúng, ad eingin hefir þvílík verid frá byrjun heims til þessarar tídar, og ekki heldur mun sídar verda; 22. og nema þessir dagar styttist, mundi einginn lífi halda, en fyrir útvaldra sakir mun þessi tími styttast. 23. Þó nokkur segi ydur þá, ad Kristur sé hér edur þar, þá skulud þér ekki trúa; 24. því ad margir falskristar og falskénnendur munu þá upp koma, og gjøra stór undur og tákn, svo ad í villu munu leidast, ef þad ské kynni, jafnvel útvaldir. 25. Gjætid nú þess, ad eg hefi sagt ydur þetta fyrir. 26. Þegar þeir nú segja ydur, ad hann sé í eydimørku, þá farid ekki út þángad, og þegar þeir segja, ad hann sé í leyni-húsum, þá trúid því ekki. 27. Því, eins og eldíngin út geingur frá austri og skín allt til vesturs, eins mun verda tilkoma Mannsins Sonar; 28. því þar sem hræid er, þángad munu ernirnir safnast. 29. En strax eptir þessa hørmúng mun sól sortna og túngl missa birtu sinnar, en stjørnur munu hrapa af himni og kraptar himnanna hrærast. 30. Þá mun teikn Mannsins Sonar birtast á himni, og allar þjódir munu óttast, nær þær sjá hann komanda í skýum himins med veldi og vegsemd mikilli. 31. Þá mun hann senda Engla sína med hvellum lúdri til ad samansafna hans útvøldum úr øllum áttum, frá einu heims skauti til annars. 32. Takid ydur dæmi af fíkjutré þessu, nær greinir þess eru þvalar ordnar, og blødin taka út ad springa, þá vitid þér ad sumarid er í nánd; 33. svo fer og nær þér sjáid allt þetta, þá megid þér vita ad þetta mun vera nærri og fyrir dyrum. 34. Sannlega segi eg ydur, ad þessi kynslód mun ekki undir lok lidin, ádur enn allt þetta kémur fram. 35. Fyrr mun himin og jørd forgánga, enn mín ord rætist ekki. 36. En þann dag og tíma veit einginn fyrir, og ekki Englar á himnum, nema Fadirinn einn. 37. En eins og dagar Nóa voru, eins mun tilkoma Mannsins Sonar verda. 38. Því eins og menn fyrir flódid héldu sig vel ad mat og drykk, karlar og konur giptust, allt til þess dags, á hvørjum Nói gékk í ørkina, 39. og vissu ekki fyrr af, enn flódid kom og tók þá alla: eins mun og verda tilkoma Mannsins Sonar. 40. Tveir munu þá á akri vera, sá annar mun medtekinn verda, hinn eptirskilinn; 41. tvær konur munu þá mala í kvernhúsi, ønnur þeirra mun verda medtekin, hin eptirskilin. 42. Verid því

V. 15. Dan. 9, 26. 27. 12, 11. *a.* Þ. e. í Jerúsalem, hvar Guds musteri var. V, 28. Habak. 1, 8. Job. 39, 32. 33. Lúk. 17, 36. V. 29. Jóel. 2, 10. Esa. 13, 10. Esek. 32, 7.

vakandi, þar þér vitid ekki nær Herra ydar
muni koma; 43. en þad vitid þér, ad ef
húsbóndinn vissi, um hvørja stund nætur ad
þjófurinn kjæmi, þá mundi hann vaka, og ekki
leyfa ad brotin væru upp hús sín. 44. Ver-
id þér því vidbúnir, því Mannsins Sonur mun
koma þegar þér síst ætlid. 45. Sæll er þjón
sá, sem sakir trúmennsku sinnar og forsjálni er
settur af húsbónda sínum yfir skulda-lid hans,
ad géfa því mat í réttan tíma, 46. ef ad
húsbóndinn, nær hann kémur, finnur, ad hann
gjørir þetta verk sitt dyggilega; 47. því, trú-
id mér, hann mun setja hann yfir allar eigur
sínar. 48. En sé nú þjón þessi ótrúr, og
hugsi, ad húsbóndi sinn muni ekki svo brádum
koma, 49. taki sídan ad berja á samþjónum
sínum og hafa samneyti vid ofdrykkjumenn, 50.
þá mun húsbóndi hans koma, þegar hann varir
sem minnst, og á þeirri stund, er hann ætladi síst,
51. og láta hann mæta hørdum refsíngum og
gjøra hlut hans jafnan augna-þjónum, medal
hvørra vera mun grátur og gnístran tanna.

## 25. Kapítuli.

Dæmisaga um þær forsjálu og óforsjálu meyar; um
húsbóndann er fékk þjónum sínum fé sitt í hendur;
um dómadag.

1. Eins er því varid med Guds ríki og
med tíu meyar, sem tóku lampa sína og fóru
á móti brúdgumanum: 2. fimm af þeim voru
forsjálar, en fimm óforsjálar. 3. Þær ófor-
sjálu tóku ad sønnu lampa sína, en ekki tóku
þær vidsmjør med sér. 4. En þær forsjálu
tóku vidsmjør med í kérum sínum. 5. En er
frestadist koma brúdgumans, syfjadi þær allar,
og fóru ad sofa; 6. en um midnætti var kall-
ad og sagt: ad brúdguminn kjæmi og ad þær
skyldu fara út á móti honum. 7. Þá vökn-
udu allar meyarnar, og tóku ad búa lampa
sína. 8. Þá søgdu þær óforsjálu til hinna
forsjálu: géfid oss nokkud af ydar vidsmjøri, því
annars munu ljós vor slokkna. 9. Hinar for-
sjálu svørudu: vér erum hræddar um ad þad
muni ekki endast handa oss og ydur; farid held-
ur til þeirra, er vidsmjør selja, og kaupid þar
vidsmjør handa ydur. 10. En er þær voru
burtfarnar til kaupa þessara, þá kom brúdgum-
inn; og þær, sem tilbúnar voru, fylgdu hon-
um í brúdkaupsstofuna; sídan var dyrunum
lokad. 11. Um sídir komu og hinar meyarn-
ar, og søgdu: Herra! Herra! ljúk upp fyrir
oss. 12. En hann mælti: eg kannast øldúng-
is ekki vid ydur. 13. Verid þarfyrir vakandi,
því þér vitid ekki daginn né stundina a). 14.
Því þessu er eins háttad og manni þeim, er
ferdadist utanlands, og kalladi ádur til sín þjóna
sína, og seldi þeim í hendur fé sitt. 15. Ein-
um fékk hann fimm pund, ødrum tvø og en-
um þridja eitt, eptir sérhvørs þeirra dugnadi,
og ad svo gjørdu fór hann strax leidar sinnar.
16. Þá fór sá, er vid fimm pundum tekid
hafdi, vardi þeim til kaupeyris, og ávaxtadi
þau um helmíng. 17. Eins gjørdi sá, er vid
tveim pundum hafdi tekid, ad hann græddi á
þeim ønnur tvø. 18. En sá, er vid því eina
hafdi tekid, fór og fól fé húsbónda síns í jørdu.
19. En er lángur tími var lidinn, kom húsbóndinn
heim, og krafdist ad þeir skyldu gjøra skil á fénu.
20. Þá kom sá, er vid fimm pundum hafdi tekid,
og bar fram ønnur fimm pund og mælti: Herra!
þú seldir mér í hendur fimm pund; á þeim hef eg
unnid ønnur fimm pund. 21. Herrann mælti:
vel hefir þú gjørt, þú gódi þjón! þú varst trúr
yfir litlu, eg mun setja þig yfir mikid; gakk inn
í føgnud þíns herra b). 22. Nú kom sá, er

V. 1. Sbr, 1 Makk. 9, 37. Sálm. 45, 14—15. V. 13. a. Nl. nær Mannsins Sonur muni koma. V. 21. b. e.
vertu bordgéstur í þeirri glediveitslu, sem eg gjøri eptir mína heimkomu.

hafdi feingid tvø pund og mælti: Herra! tvø pund fékkstu mér í hendur, á þeim hefi eg grædt ønnur tvø pund. 23. Þá mælti Herrann: vel lík-ar mér vid þig, þú trúi og gódi þjón! þú varst trúr yfir litlu, nú mun eg setja þig yfir mikid; gakk inn í þíns Herra føgnud. 24. Sídan kom sá fram, sem tekid hafdi vid einu pundi og mælti: eg vissi, Herra! ad þú varst hard-ur madur, sem uppskér, hvar þú ekki sáir, og tínir saman, hvar þú strádir ekki; 25. þetta hræddumst eg, og fór því og fól þitt pund í jørdu; lít nú á, þar hefir þú þitt. 26. Þá svaradi Herrann: þú ótrúi og lati þjón! þar ed þú vissir, ad eg uppskér, hvar eg ekki sái, og tíni saman, þar eg ekki strái, 27. þá áttir þú ad fá fé mitt í hendur verdslunarmønnum, svo ad, nær eg kjæmi, kynni eg ad taka vid því med áverti. 28. Takid því af honum hans pund, og seljid þeim í hendur, sem hefir tíu pund; 29. sérhvørjum, sem hefir, honum mun veitt verda, svo hann hafi yfirfljótanlegt; en frá þeim, sem ekki hefir, mun og þad litla tak-ast er hann á; 30. en þessum vonda þjóni skulud þér varpa í myrkrid fyrir utan, hvar ed vera mun grátur og gnístur tanna.

31. Þegar Mannsins Sonur kémur í dýrd sinni og allir Englar med honum, þá mun hann sitja í sínu dýrdar hásæti, 32. og allar þjódir munu safnast til hans; hann mun adskilja þá a), eins og þegar hirdir skilur saudi frá høfrum, 33. og skipa saudunum sér til hægri, en høfr-unum til vinstri hlidar; 34. þá mun Konúng-urinn segja vid þá, sem eru honum til hægri hlidar: komid, þér ástvinir míns Fødurs! og eignist þad ríki, sem ydur var fyrirbúid frá upp-hafi heimsins. 35. Matþurfi var eg og þér veittud mér fædu; þyrstur var eg og þér gáfud mér ad drekka; géstur var eg, og þér hýstud mig; 36. klædfár, og þér gáfud mér føt; sjúk-ur, og þér hjúkrudud mér; í díblissu, og þér vitjudud mín. 37. Þá munu Guds vinir svara: Herra! nær sáum vér þig matþurfa, og veitt-um þér fædu? þyrstan, og gáfum þér ad drekka? 38. gést, og hýstum þig? klædfáann, og gáfum þér føt? 39. nær sáum vér þig sjúkan edur í myrkvastofu, og vitjudum þín? 40. Þá mun Konúngurinn svara: eg segi ydur þad satt: ad hvad þér gjørdud vid einn af þessum minnstu brædrum mínum, þad hafid þér mér gjørt. 41. Sídan mun hann segja vid þá, sem eru honum til vinstri hlidar: farid frá mér bølvadir í þann eilífa eld, sem búinn er djøflinum og árum hans; 42. því ekki gáfud þér mér fædu, þá eg var matþurfi; ekki þyrstum ad drekka; 43. ekki hýstud þér mig hælislausan; ekki gáfud þér mér klædfáum føt, og ekki vitjudud þér mín í fáng-élsi. 44. Þá munu þeir svara: Herra! nær sáum vér þig matþurfa, edur þyrstan, hælislaus-an, edur klædfáan, sjúkan edur í fángélsi, ad vér ekki hjálpudum þér. 45. En hann mun svara: sannlega segi eg ydur: þad, sem þér ekki gjørdud einum af þessum mínum minnstu brædr-um, þad gjørdud þér ekki heldur mér. 46. Þá munu þessir fara til ævarandi kvala, en þeir gódu til eilífrar sælu.

## 26. Kapítuli.

Jesús fyrirsegir sína pínu; rádagjørd Gydínga um ad deyda hann. Hann er smurdur í Betaníu; Júdas býdst til ad svíkja Jesúm. Jesús etur Páska-lambid, innsetur Kvøldmáltídina. Hans gángur til vidsmjørs vidar fjallsins og pína í grasgard-inum. Hann er tekinn høndum, Pétur sýnir vørn, Lærisveinarnir flýa. Jesús er færdur fyrir hinn andlega rétt. Afneitun Péturs.

1. Nú er Jesús hafdi lokid þessari rædu, mælti hann vid Lærisveina sína: 2. þér vitid,

B. 32. *a.* Nl. þá gódu frá þeim vondu. B. 35, sbr. 1 Kor. 13, 13. 2 Kor. 5, 10. B. 1 — 16. sbr. Mark. 14, 1 — 11, Lúk. 22, 1 — 6.

ad eptir tvo daga eru Páskar; þá mun Manns-
ins Sonur ofurseldur verda, ad hann krossfestist.
3. Um þetta bil komu saman þeir ædstu
prestar og skriptlærdir og øldúngar lýdsins í
gardi hofudprestsins, er Kaífas hét, 4. og
gjørdu rád sitt hvørnig þeir gjætu fengid Jes-
úm høndladan med svikum og tekid hann af lífi;
5. og sýndist þeim ad ekki mundi rád ad gjøra
þetta á hátídinni, ad ekki yrdi upphlaup medal
fólksins.

6. Þegar Jesús var í Betaníu í húsi Sí-
monar líkþráa, 7. kom til hans kona nokkur,
hún hafdi fløsku med dýrmætum smyrslum í;
þeim hellti hún yfir høfud hans er hann var
ad mat; 8. en er Lærisveinar hans sáu þetta,
mislíkadi þeim þad, og mæltu: hvar til skal
þessi kostnadur? 9. þessi smyrsl hefdu kunnad
ad seljast miklu verdi, og géfast svo fátækum.
10. En er Jesús vard þessa var, mælti hann:
því amist þér vid konu þessari? vel gjørdi hún
til mín; 11. því fátæka munud þér ætíd hjá
ydur hafa, en mig ekki; 12. med þessum smyrsl-
um smurdi hún mig til minnar greftrunar; 13.
trúid mér, ad hvar um heim, sem þessi nádar-
bodskapur verdur kunngjørdur, mun og þess,
er hún gjørdi, henni til sæmdar gétid verda.

14. Um þetta bil fór einn af þeim tólf, er
Júdas hét frá Kariot, til enna ædstu presta, 15.
og spurdi þá: hvad þeir vildu géfa sér til ad
koma honum á þeirra vald; en þeir greiddu hon-
um þrjátíu silfurpenínga, 16. og upp frá þessu
leitadi hann lags ad svíkja Jesúm.

17. En fyrsta hátídardag enna ósýrdu braud-
anna a) gengu Lærisveinarnir til Jesú og spurdu:
hvar viltú ad vér matbúum þér Páskalambid?
18. hann mælti: farid þér í borgina til manns
nokkurs, og segid honum: svo segir Meistarinn:
minn tími er nálægur, hjá þér vil eg halda
Páska med Lærisveinum mínum. 19. Læri-
sveinarnir gjørdu, sem hann baud þeim, og efn-
udu þar til páska veitslu. 20. Og er kvøld
var komid, settist hann til bords ásamt þeim
tólf Lærisveinum sínum. 21. Nú er þeir vóru
undir bord komnir, tók hann svo til orda: trú-
id mér: ad einn af ydur mun svíkja mig;
22. og er þeir heyrdu þad, urdu þeir mjøg
hryggvir, og spurdu hann, hvørr fyrir sig, med
svofeldum ordum: hvørt mun eg verda til þess,
Herra? 23. Hann svaradi: sá sem réttir hønd-
ina í fatid med mér, hann mun svíkja mig. 24.
Mannsins Sonur mun ad sønnu láta líf sitt,
eins og því er spád fyrir honum, en vei þeim
manni, er svíkur hann! betra væri honum, ad
hann aldrei væri fæddur. 25. Þá spurdi Jú-
das einninn, sá er sveik hann: hvørt er eg þad,
Herra? en Jesús játti því. 26. Þegar þeir
nú sátu undir bordum, þá tók Jesús braudid,
gjørdi Gudi þakkir, braut þad, og gaf sínum
Lærisveinum og mælti: takid og etid, þetta er
minn líkami. 27. Sídan tók hann bikarinn,
gjørdi Gudi þakkir, gaf þeim hann og mælti:
drekkid hér af allir; 28. þetta er mitt blód,
med hvørju hinn nýi sáttmálinn verdur stadfest-
ur, og sem fyrir marga mun úthellast til fyrir-
géfníngar syndanna. 29. En eg segi ydur þad
satt, ad eg mun ekki hédan í frá drekka af þess-
um vínvidar ávexti, til þess er eg drekk med
ydur af annarskonar ávexti í ríki míns Føđurs.

30. Þegar þeir høfdu lofsaunginn súngid,
fóru þeir til vidsmjørsvidar fjallsins. 31. Þá
mælti Jesús: á þessari nóttu munud þér allir
yfirgéfa mig, eins og sagt er í Ritníngunni:
„nær eg deydi hirdirinn, mun hjørdin tvístrast;"
32. en eptir þad ad eg er upprisinn, mun eg

V. 15, sjá Sak. 11, 12. V. 17—29, sbr. Mark. 14. 12—25. Lúk. 22, 7—23. a. Þ. e. Páska, sjá 2 Mós. 12, 17—20. V. 28, sbr. 2 Mós. 24, 8. V. 30—35. sbr. Mark. 14, 26—31. Lúk. 22, 31—39. Joh. 13, 36—38. 18, 1. V. 31, Sakk. 13, 7.

verda kominn á undan ydur til Galíleu. 33. Þá svaradi Pétur honum: þótt allir yfirgéfi þig, skal eg samt aldrei yfirgéfa þig. 34. Jesús svaradi: eg segi þér þad satt, ad á þessari nóttu, ádur enn haninn gélur, muntú þrisvar afneita mér. 35. Þá mælti Pétur: þótt eg ætti ad láta lífid med þér, vil eg þó ekki yfirgéfa þig. Hid sama søgdu og allir Lærisveinarnir.

36. Sídan kom Jesús med þeim til þess stadar, er hét Getsemane, þá mælti hann til Lærisveina sinna: bídid þér hér, á medan eg fer og gjøri bæn mína; 37. en Pétur og þá tvo sonu Sebedeusar tók hann med sér; þá tók hann ad hryggjast, og mjøg harmþrúnginn ad verda; 38. og sagdi: eg er í daudans ángist, bídid hér og vakid med mér. 39. Þá gékk hann litlu lengra fram, féll fram á sína ásjónu, og bad á þenna hátt: Fadir minn! ef skéd gétur, þá víki frá mér þessi kaleikur, þó ekki, sem eg vil, heldur, sem þú vilt! 40. Sídan kom hann aptur til Lærisveina sinna, og fann þá sofandi; þá taladi hann til Péturs á þessa leid; gátud þér þá ekki vakad med mér eina stund? 41. vakid og bidjid, ad þér fallid ekki í freistni, andinn er ad sønnu reidubúinn, en holdid er veikt a). 42. Þá fór hann í ødru sinni, og gjørdi bæn sína á þessa leid: Fadir minn! ef þad er ekki møgulegt, ad þessi kaleikur víki frá mér, án þess eg drekki hann, þá verdi þinn vilji! 43. Sídan kom hann aptur, og fann þá í ødru sinni sofandi; því svefnþúngi mikill var fallinn á augu þeirra; 44. þá fór hann enn frá þeim, og gjørdi bæn sína í þridja sinni med sømu ordum og fyrr. 45. Þá kom hann enn til Lærisveina sinna og mælti: sofid þad sem eptir er (tímans), og hvílist! Sjáid! stundin nálgast, ad Mannsins Sonur verdur framseldur á vald vondra manna; 46. standid upp og førum hédan, sá er í nánd, er mig svíkur.

47. Medan hann var nú þetta ad mæla, kom Júdas, einn af þeim tólf, og med honum flokkur mikill, búinn med sverdum og forkum. Þetta lid høfdu sendt þeir ædstu Prestar og Øldúngar lýdsins; 48. en sá, er sveik hann, bad þá hafa þad til marks, ad sá, er hann kyssti, hann væri Jesús, þann skyldu þeir høndla; 49. og strax gékk hann ad Jesú og mælti: heill, Meistari! og minntist vid hann. 50. Jesús svaradi: vinur! því ertú hér kominn? Þá geingu þeir til Jesú, løgdu hendur á hann og gripu hann. 51. En einn af fylgdarmønnum Jesú greip til sverdsins, brá því og hjó eyrad af þjónustumanni ens ædsta Prests. 52. Þá sagdi Jesús til hans: slídra þú sverd þitt; þeir er med vopnum vega, munu og fyri vopnum falla. 53. Eda meinar þú ekki, ad ef eg bædi Fødur minn, mundi hann senda mér meir enn tólf fylkíngar Engla; 54. en þetta hlýtur ad ské, svo þad komi fram, sem um mig hefir spád verid. 55. Um þetta sama bil mælti Jesús vid flokkinn: þér erud farnir út ad høndla mig med sverdum og forkum, eins og ræníngja; en á hvørjum degi hefi eg þó hjá ydur verid, setid og kénnt í musterinu, og þó hafid þér ekki vogad ad grípa mig. 56. En þetta allt er skéd, svo þad rætist, er Spámennirnir hafa sagt. Þá yfirgáfu hann allir Lærisveinar hans og flýdu.

57. En þeir, sem høndludu Jesúm, leiddu hann til Kaífasar ædsta Prests, hvar skriptlærdir og Øldúngarnir voru samankomnir; 58. en Pétur fylgdi áleingdar á eptir, allt ad gardi ens ædsta Prests. Þar gékk hann inn og settist medal þjónustumannanna, til þess hann sæi,

V. 36 — 46, sbr. Mark. 14, 32 — 42. Lúk. 22, 40 — 46. V. 41. *a*. Þ. e. ydar vilji er ad sønnu gódur, en ydur vantar kraptana, sbr. Róm. 7, 15 — 23. V. 47 — 56. sbr. Mark. 14, 42 — 52. Lúk. 22, 47 — 53, Jóh. 18, 2 — 11. V. 57 — 68, sbr. Mark. 14, 53 — 65. Lúk. 22, 54. 55. 63 — 71. Jóh. 18, 12 — 27.

hvørr endir þar á yrdi. 59. En þeir ædstu
Prestar, Öldúngarnir og allt hid mikla Rád, leit-
udu ljúgvitna gégn Jesú, ad þeir kynnu ad
dæma hann til dauda, 60. en fundu ekkért sak-
næmt um hann, jafnvel þótt margir ljúgvott-
ar kjæmu fram. Sídast komu fram tveir ljúg-
vottar, 61. þeir er søgdust hafa heyrt hann
segja: eg gét brotid musteri Guds og bygt þad
aptur innan þriggja daga. 62. Þá stód upp
sá ædsti prestur og mælti: svarar þú eingu til
þess, sem þessir ásaka þig um? 63. En
Jesús þagdi. Þá mælti hinn ædsti prestur:
eg særi þig vid enn lifanda Gud, ad þú segir
oss þad, ef þú ert Kristur Sonur Guds. 64.
Jesús svaradi: svo er, sem þú sagdir, en trúid
mér: ad eptir þetta munud þér sjá Mannsins
Son sitjanda til hægri handar ens alvalda
Guds, og komanda í skýum himins. 65. Þá
reif hinn ædsti prestur sín klædi og mælti:
hann gudlastar; hvad þurfum vér nú framar
vitnanna vid? nú heyrdud þér sjálfir hans
gudløstun. 66. Hvad lítst ydur? en þeir
svádu hann allir dauda sekann. 67. Þá
hræktu þeir í andlit honum og slóu hann,
sumir med knefum og sumir med lófum, 68.
og mæltu: spádu nú, Kristur! hvør var þad,
sem sló þig?

69. Nú er Pétur sat utarlega, í gardinum,
kom til hans ambátt nokkur, og mælti: þú
varst med Jesú enum galverska! 70. en hann
neitadi því, svo allir heyrdu, og mælti: ekki
veit eg, hvad þad er, sem þú talar um. 71.
En er hann gékk út í fordyrid, þá leit hann ønn-
ur ambátt og mælti vid þá, sem hjá vóru:
þessi madur var med Jesú enum nadverska;
72. en hann neitadi aptur med eidi, og kvadst
ekki þekkja þann mann. 73. Skømmu sídar
tóku þeir til orda, er hjá vóru og søgdu vid
Pétur: víst ertú af hans mønnum; þad aug-
lýsir mál þitt. 74. Þá tók hann ad sverja og
formæla sér, ad hann ekki þekkti þenna mann,
og í því sama gól haninn; 75. þá minntist
Pétur þess, er Jesús hafdi mælt: ad ádur enn
haninn galadi, mundi hann þrisvar afneita sér;
gékk sídan út og grét sáran.

## 27. Kapítuli.

Jesús afhendtur Pílatusi; órvænting og dauddagi Júdasar; Jesú játníng og þogn; Barabbas er laus látinn, en Jesús afhendtur til húdstroku og krossfestíngar, spottadur, þyrni-krýndur og færdur út til aftøkustadarins, krossfestur og hæddur. Teiknin vid Jesú dauda; Jesús greftradur. Vid legstadinn setjast verdir.

1. Ad morgni nærsta dags tóku allir hin-
ir ædstu prestar og Öldúngar lýdsins rád sín
saman gégn Jesú, svo þeir gjæti rádid hann
af døgum, 2. bundu hann sídan, færdu hann
þadan og seldu í hendur Landstjórnaranum Pont-
síus Pílatus.

3. En er Júdas, sá er sveik hann, sá ad
hann var til dauda dæmdur, idradist hann og
skiladi hinum ædstu prestum og Öldúngunum
aptur þeim þrjátíu silfurpeníngum, og mælti:
4. illa gjørdi eg, er eg sveik saklausan mann;
en þeir søgdu, þad kjæmi sér ekki vid, og
bádu hann sjálfan fyrirsjá. 5. Þá kastadi
hann silfrinu á musteris gólfid, skundadi þadan
og hengdi sig. 6. En hinir ædstu prestar tóku
silfrid, og kom þad ásamt, ad ekki væri hæfi-
legt ad leggja þad í Guds kistuna, því þad
hafi verid til høfuds lagt. 7. Tóku þeir því
þad til ráds ad kaupa med því leirkéra-smids
akur til ad jarda þar í útlenda menn, 8. og
þess vegna er hann enn þá kalladur blóds-ak-
ur. 9. Þannig rættist þad, er Jeremías segir:
„þeir tóku þá þrjátíu silfurpenínga, verd þess,
er metinn var, hvørn Ísraelsmenn høfdu metid,

V. 69—75. sbr. Mark. 14, 66—72. Lúk. 22, 56—62. (Jóh. 18, 12—27). V. 1—31. sbr. Mark. 15, 1—20. Lúk. 23, 1—25. Jóh. 18, 28—40. 19, 1—16. V. 9. Sak. 11, 12. 13. sbr. Jer. 18, 2.

10. og þeir keyptu fyrir þá leirkéra-smiðs akur,
eins og Drottinn hafði boðið mér".
11. Nú er Jesús kom fyrir landstjórnarann,
frétti þessi, hvørt hann væri Gyðínga Konúng-
urinn? Jesús kvað það satt vera. 12. En er
hinir æðstu prestar og Öldúngar báru sakir á
hann, svaraði hann engu. 13. Þá sagði Pí-
latus til hans: heyrir þú ekki þeirra sakargift-
ir? 14. en hann svaraði honum ekki til neins
orðs, svo að Landsstjórnarann furðaði mjøg.
15. Á hátíðinni var Landstjórnarinn vanur að
láta fólkinu lausan bandíngja þann einn, er þeir
sjálfir kysu, 16. en þá var þar bandíngi nokk-
urr nafnkunnur, sá er Barabbas hét; 17. nú
er þeir voru samankomnir, tók Pílatus svo til
orða: hvørn viljið þér nú að eg gefi yður lausan,
Barabbas eður Jesúm, sem Kristur er kallaður;
18. því hann vissi, að þeir høfðu Jesúm fyrir
haturs sakir framseldan. 19. En er hann sat
á dómstólnum, sendi kona hans til hans, og lét
segja honum: láttú þenna saklausa mann vera,
því margt þúngt hefir mér borist í drauma í
dag hans vegna. 20. En hinir æðstu prestar
og Öldúngarnir eggjuðu alþýðuna, að þeir
skyldu biðja um Barabbas, en Jesúm skyldu
þeir lífláta. 21. Síðan tók Landstjórnarinn
til orða og mælti: hvørn þessara tveggja vil-
jið þér nú að eg gefi yður lausan? en þeir
søgðu: Barabbas! 22. Þá spurði Pílatus
þá: hvað skal eg gjøra við Jesúm, er Kristur
kallast? þeir søgðu allir: að hann skyldi kross-
festast. 23. Þá spurði Landstjórnarinn: hvað
hefir hann þá íllt gjørt? en þeir kølluðu þess
meir: krossfestist hann! 24. Nú er Pílatus
sá, að hann eingu mundi fá til vegar komið,
heldur mundi þar upphlaup verða, tók hann vatn
og þvoði hendur sínar, svo allir sáu, og mælti:
sýkn er eg í lífláti þessa saklausa manns, sjáið
þér fyrir því. 25. Þá mælti allur lýður:
komi blóð hans yfir oss og børn vor. 26.
Síðan gaf hann þeim Barabbas lausan, en
Jesúm lét hann húðstrýkja og afhendti hann til
að krossfestast. 27. Að svo búnu færðu stríðs-
menn Landstjórnarans Jesúm inn í høll (Land-
stjórnarans), og søfnuðu að honum øllum
flokknum, 28. færðu hann af klæðum sínum
og løgðu yfir hann skarlats-kápu, 29. flétt-
uðu kórónu af þyrnum og settu á høfuð hon-
um, gáfu honum reyr í hønd, hneigðu honum,
hæddu hann og mæltu: heill vertú Gyðínga Kon-
úngur! 30. hræktu á hann, tóku reyrinn og
hrøktu um høfuð honum. 31. Þegar þeir
nú þannig voru búnir að hæða Jesúm, færðu
þeir hann úr kápunni og í hans eigin føt, og
leiddu hann út til að krossfestast.
32. En er þeir geingu út, fundu þeir mann,
er Símon hét, ættaðan frá Sýrene; þessum
nauðguðu þeir til að bera hans kross. 33.
Þegar þeir nú komu til þess staðar, er heitir
Golgata, það þýðir hausaskélja-staður, 34.
buðu þeir honum súrt vín beiskju-borið; en
er hann hafði það smakkað, vildi hann ekki
drekka. 35. En þá þeir høfðu krossfest hann,
skiptu þeir með sér klæðum hans eptir hlutkésti,
36. biðu svo þar og gættu hans. 37. En yfir
høfuð hans var fest hans dauðasøk, skrifuð á
þessa leið: **Þessi er Jesús, Konúngur
Gyðínga.** 38. Með honum voru líka krossfestir
ræníngjar tveir, annar til hægri hliðar, hinn til
vinstri. 39. En þeir, er framhjá gengu, íllmæltu
honum, skóku høfuð sín og mæltu: 40. þú, sem
ætlaðir að niðurbrjóta musterið og byggja það
aptur innan þriggja daga, hjálpa þú nú sjálf-
um þér; ef þú ert Guðs Sonur, þá stíg niður
af krossinum. 41. Líka hæddu hann hinir
æðstu prestar ásamt Öldúngunum og hinum
skriftlærðu, og søgðu: 42. øðrum gat hann
hjálpað, en sjálfum sér getur hann ekki bjargað; sé

V. 32—56, sbr. Mark. 15, 21—41. Lúk. 23, 26—49. Jóh. 19, 17—37.

hann Konúngur Ísraels, þá stígi hann nidur af krossinum, þá viljum vér trúa honum; 43. hann treysti Gudi, hjálpi hann honum nú, ef honum er vel til hans, þar hann kvadst vera Guds Sonur. 44. Um hid sama bríxludu honum ræníngjarnir, sem med honum voru krossfestir. 45. Þá kom myrkur mikid yfir allt landid frá sjøttu til níundu stundar; 46. og um níundu stundu kalladi Jesús hátt og mælti: Elí! Elí! lama sabachtaní! þad þýdir: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? 47. En er nokkrir af þeim, er vid voru staddir heyrdu þetta, søgdu þeir: ad hann kalladi á Elías; 48. og strax hljóp einn af þeim ad, tók njardarvøtt og fyllti med súrt vín, setti hann ofan á reyrlegg, og gaf honum ad drekka, 49. en hinir søgdu: reynum vér, hvørt Elías kémur ad hjálpa honum. 50. Þá kalladi Jesús aptur hárri røddu, og gaf upp andann. 51. Þá rifnadi fortjald musterisins í tvennt, ofan frá og nidur í gégnum, jørdin skalf og bjørgin klofnudu, 52. og legstadir hinna daudu opnudust, og margir helgir menn risu upp, þeir er ádur voru daudir; 53. og sem þeir voru útfarnir af grøfum sínum, komu þeir, eptir hans upprisu, í borgina helgu, og urdu þar sjenir af mørgum. 54. Nú er hundrads-høfdínginn og þeir, sem med honum voru, sem Jesú áttu ad gjæta, sáu jardskjálftann og þad sem skédi, urdu þeir nærsta hræddir, og søgdu: sannarlega var þessi madur Guds Sonur. 55. Þar vóru og konur margar, sem stódu lángt frá og sáu til; þessar høfdu fylgst med Jesú úr Galíleu-landi og þjónad honum. 56. Medal þeirra voru þær María frá Magdølum, María módir þeirra Jakobs og Jósis, og módir þeirra Sebedeusar sona.

57. Þegar kvøld var komid, kom madur sá, er Jósep hét, frá Arimatíu, audugur ad fé; 58. þessi var og einn af Lærisveinum Jesú; hann fór til Pílatusar og bad um lík Jesú, og lét Pílatus afhenda honum þad. 59. Sídan tók Jósep vid líkinu, og sveipadi þad í hreinu líni, 60. og lagdi þad í nýjan legstad, sem hann hafdi látid úthøggva í klett handa sjálfum sér, velti sídan stórum steini fyrir dyrnar og fór burt. 61. Þar var líka María frá Magdølum og hin ønnur María; þær sátu gégnt grøfinni.

62. Daginn eptir, sem nærstur var eptir adfánga-daginn, søfnudust hinir ædstu prestar og Farisearnir saman og komu til Pílatusar, 63. og søgdu: oss er þad í minni, Herra! ad medan villumadur þessi lifdi, kvadst hann mundi upprísa innan þriggja daga. 64. Lát þú því gjæta legstadarins allt til þridja dags, svo ad ekki komi Lærisveinar hans og steli honum, segi sídan lýdnum, ad hann sé upprisinn, og verdi svo seinni villan verri enni fyrri. 65. Pílatus mælti: hér hafid þér vardhaldsmennina; farid og gjætid legstadarins, sem þér hafid best vit á. 66. Þeir fóru og innsigludu steininn, og létu vardmennina gjæta grafarinnar.

## 28. Kapítuli.

Jesús upprís og birtist kvinnunum. Vardhaldsmennirnir flýa frá grøfinni. Jesús birtist Lærisveinunum í Galíleu, býdur þeim ad skíra og kénna.

1. Ad lidnum hvíldar-deginum, þegar lýsti af fyrsta degi vikunnar, komu þær María frá Magdølum og hin ønnur María ad sjá legstadinn. 2. Og sjá, þá vard mikill jardskjálfti; því Engill Drottins kom frá himni, gékk þar ad, velti steininum frá dyrum legstadarins og settist á hann; 3. ásýnd hans var sem leyptur, og klædi

V. 43 Sálm. 22, 9. V. 46. Sálm. 22, 2. V. 48. Sálm. 69, 22. V. 57—61, sbr. Mark. 15, 43—47: Lúk. 23, 50—56: Jóh. 19, 38—42. V. 1. Mark. 16, 1. Lúk. 24, 1. Jóh. 20, 1.

hans bjørt, sem snjór; 4. vid þessa sýn urdu þeir
svo hræddir, er legstadarins skyldu gjæta, ad
þeir voru, sem ørendir. 5. En til kvennanna
mælti Engillinn: verid óhræddar, eg veit ad
þér leitid ad Jesú þeim, er krossfestur var; 6.
hann er ekki hér, því hann er upprisinn, eins
og hann sagdi; komid og sjáid stadinn,
hvar Herrann lá; 7. farid svo med skyndi
og segid Lærisveinum hans, ad hann sé upp-
risinn, og hann sé undan ydur kominn til Gali-
leu-lands; þar munud þér sjá hann; sjáid!
eg hefi sagt ydur þad! 8. En þær gengu
skyndilega út úr legstadnum, bædi hræddar og
gladar mjøg, og hlupu til ad flytja Lærisvein-
um hans þenna bodskap; 9. og er þær voru á
leid komnar, til ad segja Lærisveinum hans frá
þessu, kom Jesús móti þeim og sagdi: sælar
verid þid! en þær geingu til hans og fødm-
udu fætur hans, og veittu honum lotníngu.
10. Þá sagdi Jesús vid þær: hrædist ekki,
farid og segid brædrum mínum, ad þeir skuli
fara til Galíleu-lands, og þar skuli þeir sjá mig.
11. Þegar þær voru burtu farnar, komu
nokkrir af vardmønnunum til stadarins og søgdu
hinum ædstu prestum allt, sem farid hafdi; 12.
en þeir geingu á rádstefnu ásamt med Øldúng-
unum og tóku þad til ráds, ad géfa stríds-
mønnunum fé mikid, og søgdu vid þá: 13. seg-
id: ad Lærisveinar hans hafi komid um nótt og
stolid líkinu, á medan þér sváfud. 14. En ef
þetta berst til eyrna landstjórnarans, þá skulum
vér sefa hann og gjøra ydur óhulta. 15.
Strídsmennirnir tóku vid fénu, og gjørdu, sem
þeim var ként. Þessi atburdur er enn í dag í
alræmi hjá Gydíngum.

16. Þeir ellefu Lærisveinar ferdudust sídan
til Galíleu-lands, á fjall þad, er Jesús hafdi
bodid þeim; 17. þar sáu þeir hann og veittu
honum lotníngu, en sumir voru efablandnir.
18. Þá gékk Jesús til þeirra og sagdi: mér
er géfid allt vald á himni og jørdu; 19. farid
og kénnid øllum þjódum, og skírid þær í nafni
Fødurs, Sonar og heilags Anda; 20. og
bjódid þeim ad gjæta alls þess, er eg hefi bod-
id ydur; en sjálfur vil eg vera med ydur alla
daga, allt til veraldarinnar enda.

# Markúsar Gudspjall.

## 1. Kapítuli.

*Verk Jóhannesar og Jesú.*

1. Þetta er upphaf gledi-bodskaparins
Jesú Krists, Gud Sonar.

2. Eins og skrifad er hjá Spámanninum
Esajas: „sjá! eg sendi minn Sendiboda á und-
an þér, sá er greida skal veg þinn; 3. kall er
heyrt í óbygdum: tilbúid veg Drottins, jafnid
brautir hans:“ 4. þannig skédi þad, ad Jó-
hannes skírdi í eydimørku og kénndi: ad þeir,
er skírast vildu, skyldu bæta rád sitt, til ad fá
fyrirgéfníngu synda sinna. 5. Til hans komu
allir Júdeu og Jerúsalems innbyggendur, og
voru þeir, sem játudu sín afbrot, skírdir af hon-
um í ánni Jórdan. 6. Jóhannes var klæddur
úlfaldshárum og girdtur ledur-belti um lendar

V. 2. Malak. 3, 1. V. 3. Esa. 40, 3. V. 2—8. sbr. Matt. 3, 1—12. Lúk. 3, 2—18.

sér; fæda hans voru engispretur og skógarhunáng. 7. Hann hóf svo kénníngu sína: sá, er eptir mig kémur, er mér meiri, og eg er ekki þess verdur, ad eg beygi mig til ad leysa hans skó-þvengi. 8. Eg skíri ydur einúngis í vatni, en hann mun skíra ydur med heiløgum Anda.

9. Svo bar til um þessar mundir, ad Jesús kom frá Nasaret í Galíleulandi og lét skírast af Jóhannesi í Jórdan; 10. en jafnskjótt er hann steig upp úr vatninu, sá Jóhannes himininn opnast og andann fara nidur, eins og dúfu, yfir hann; 11. þá heyrdist rødd af himni: þú ert Sonur minn elskulegur, á hvørjum eg hefi velþókknun. 12. Og strax þar eptir knúdi andinn hann til ad víkja á eydimørku, 13. og á þessari eydimørku var hann í fjørutíu daga freistadur af Satan og medal villu-dýra; en Englar þjónudu honum.

14. En eptir ad Jóhannes var framseldur (til lífláts), veik Jesús í Galíleuland, og flutti þar gledibodskapinn um Guds ríki, og sagdi: 15. tíminn er kominn og Guds ríki er nálægt; bætid rád ydar og trúid þessum gledibodskap.

16. Þegar hann gékk med sjónum í Galíleu, sá hann Símon og Andrés, bródur hans, sem voru ad leggja net í sjóinn, því þeir voru fiskimenn. 17. Jesús sagdi til þeirra: fylgid mér eptir, og mun eg gjøra ydur ad mannaveidurum. 18. Þeir yfirgáfu strax netin, og fylgdu honum. 19. Þegar hann var kominn skammt þadan, sá hann þá Jakob Sebedeusarson og Jóhannes bródur hans, sem og svo vóru á skipi ad bæta net; 20. þá kvaddi hann einninn strax til fylgdar vid sig. Þeir yfirgáfu fødur sinn þar á skipinu, samt leigulidana og fylgdu honum. 21. Þeir komu til Kapernaum, og strax gékk Jesús í samkundu-hús þeirra og kénndi þar á hvíldardøgum; 22. en fólkid undradist mjøg kénníngu hans, því hann kénndi þeim eins og sá er hefdi vald til þess (af Gudi) en ekki eins og hinir skriftlærdu. 23. Í samkunduhúsi þeirra var madur nokkurr, sem hafdi óhreinan anda; hann kalladi og sagdi 24. æ, hvad høfum vid saman ad sælda, Jesú nadverski? ertú kominn til ad fyrirfara oss? Eg veit hvørr þú ert, hinn heilagi Guds a). 25. Jesús hastadi þá á hann og mælti: þegi þú, og far út af honum! 26. Þá hreif hinn óhreini andi manninn, og fór útaf honum øskrandi. 27. Þetta undrudust allir, svo þeir spurdu hvørr annan og søgdu: hvad er þetta? hvør er þessi hin nýa kénníng? því hann skipar jafnvel óhreinum øndum med valdi, og þeir hlýda honum. 28. En ordrómurinn af honum barst strax út um øll þau lønd, er lágu í grend vid Galíleuland. 29. Strax sem þeir komu úr samkunduhúsinu, fóru þeir til húss Símonar og Andrésar, ásamt med Jakobi og Jóhannesi; 30. þar lá módir konu Símonar sóttveik, og strax var honum sagt frá henni; 31. hann gékk þángad, tók í hønd henni, reisti hana á fætur og þá hvarf strax sóttveikin frá henni, og hún þjónadi þeim. 32. Nú er kvøld kom og sól var runnin, færdu þeir til hans alla veika og djøfulóda, 33. og borgarmenn søfnudust allir saman ad dyrum hússins; 34. en hann læknadi marga þá, er veikir voru af ýmsum sjúkleikum, og rak út marga djøfla, og leyfdi þeim ekki ad segja, ad þeir þekktu hann.

35. Ad morgni fyrir døgun fór hann á fætur, og gékk út úr borginni í einn eydistad, og gjørdi þar bæn sína; 36. en Símon og þeir, sem med honum voru, eltu hann, 37. og er þeir fundu hann, søgdu þeir til hans: allir

V. 7—8, sbr. Jóh. 1, 26. 27. 33. V. 9—11. sbr. Matt. 3, 13—17. Lúk. 3, 21. 22. (Jóh. 1, 29—33). V. 12—13, sbr. Matt. 4, 1—11. Lúk. 4, 1—13. V. 14—15, sbr. Matt. 4, 12—17. V. 16—20, sbr. Matt. 4, 18—22. Lúk. 5, 1—11. V. 21—39, sbr. Matt. 8, 14—17. Lúk. 4, 31—44. V. 24. a. Messías.

leita þín. 38. Þá sagdi Jesús vid þá: vér
skulum fara í nálæg þorp, svo eg fái einninn
þar kénnt; því til þess er eg út farinn a).
39. Og hann kénndi í samkunduhúsum þeirra
um allt Galíleuland og rak djøfla út. 40.
Og madur nokkurr líkþrár kom til hans, féll
til fóta hans og bad hann med svofeldum ord-
um: ef þú vilt, gétur þú læknad mig. 41.
Jesús kénndi í brjósti um hann, rétti út hønd-
ina, snart hann og sagdi: eg vil, vertú heill!
42. og jafnskjótt, er Jesús mælti þetta, hvarf
af honum líkþráin, og hann vard heilbrigdur.
43. Jesús lét hann strax frá sér fara, lagdi
ríkt á vid hann, 44. og mælti: varastú ad seg-
ja þetta nokkrum, heldur far og sýn þig Prest-
inum, offra því, sem Móses baud, til sanninda-
merkis um, ad þú sért heilbrigdur ordinn. 45.
En madurinn fór og taladi margt um þetta og
bar þad út, svo Jesús mátti ekki framar koma
opinberlega í borgina; var hann því utanborg-
ar í eydistødum, og kom fólk þángad til hans
úr øllum áttum.

## 2. Kapituli.

*Jesús læknar; kallar Matteus; tekur Lærisveinana í forsvar.*

1. Nokkrum døgum sídar kom hann aptur
inn í borgina Kapernaum; og strax er sú fregn
kom, ad hann væri í húsi sínu, 2. safnadist
þángad svo mikill fjøldi fólks, ad þad komst
hvørgi fyrir, og jafnvel ekki í anddyrinu, en
hann flutti þeim sína kénníngu; 3. þá komu
til hans menn nokkrir med visinn mann, sem
var borinn af fjórum; 4. nú er þeir gátu ekki
komist á hans fund fyrir mannþraunginni, rifu
þeir gat á þakid uppi yfir honum, og létu sæng-
ina síga þar nidur, hvar í sá visni lá. 5. Nú
er Jesús sá þeirra trúnadartraust, sagdi hann
til þess visna: sonur! syndir þínar eru þér
fyrirgéfnar. 6. En þar sátu nokkrir af
þeim skriftlærdu, og hugsudu med sér: 7. því
talar madur þessi slíkar gudlastanir? hvørr
kann ad fyrirgéfa syndirnar nema Gud einn?
8. Strax fann Jesús í anda, ad þeir hugsudu
þetta og sagdi vid þá: því hugsid þér slíkt í
ydrum hjørtum? 9. hvørt er audveldara ad seg-
ja þeim visna: syndir þínar eru þér fyrirgéfn-
ar, eda segja: stattú upp, tak sæng þína og
gakk; 10. en til þess ad þér vitid, ad Manns-
ins Sonur hefir vald til ad fyrirgéfa syndir á
jørdu, sagdi hann þeim visna: 11. þá segi eg þér!
stattú upp og tak sæng þína og far til húss
þíns; 12. en hann stód strax upp, tók sæng-
ina og gékk út, svo allir sáu. Þá undrudust
allir og vegsømudu Gud, og játudu: ad þeir
aldrei hefdu slíkt sjed.

13. Þar eptir gékk hann aptur út til sjáf-
arins, og allt fólkid kom til hans, og hann
kéndi þeim. 14. Og er hann gékk framhjá, sá
hann mann, er Leví hét Alfeusson, sitjanda í
tollbúd sinni, og sagdi vid hann: fylgdu mér!
hann stód upp og fylgdi honum. 15. En svo
bar til, er Jesús var ad mat í húsi hans, ad
margir tollheimtumenn og bersyndugir møtud-
ust þar ásamt Jesú og Lærisveinum hans; því
margir af þeim vóru í fylgd med honum; 16.
en er þeir skriftlærdu og Farísearnir sáu hann
matast ásamt tollheimtumønnum og bersyndug-
um, søgdu þeir vid Lærisveina hans: hvad kém-
ur til, ad hann etur og drekkur med tollheimtu-
mønnum og bersyndugum? 17. Þegar Jesús
heyrdi þetta, mælti hann: ekki þurfa heilbrigd-
ir læknis vid, heldur þeir, sem sjúkir eru. Eg
er ekki kominn til ad kalla réttláta, heldur synd-

V. 38. a. Þ. e. frá Kapernaum. V. 40—45. sbr. Matt. 8, 2—5. Luk. 5, 12—16. V. 44. 3 Mós. 14, 3. V. 1—12. sbr. Matt. 9, 1—9. Lúk. 5, 18—20. V. 7. Es. 43, 25. V. 13—22. sbr. Matt. 9, 9—17. Lúk. 5, 27—39. V. 14. Framm hjá, Nl. tollbúdinni.

uga til lifnadarbóta. — 18. Lærisveinar Jóhannesar og Faríseanna voru vanir ad fasta (optlega); þeir komu til Jesú og tóku svo til orda: því fasta Lærisveinar Jóhannesar og Faríseanna, en þínir Lærisveinar fasta ekki? 19. Jesús svaradi þeim: hvørt kunna brúdmennirnir ad fasta, á medan brúdguminn er med þeim? svo lengi sem þeir hafa brúdgumann med sér, ber þeim ekki ad fasta; 20. en sá tími mun koma, ad brúdguminn verdur frá þeim tekinn, og þá munu þeir fasta. 21. Enginn plagar ad leggja óþæfda bót á gamalt fat: því annars rífur hin óþæfda bót hid gamla fatid, og verda þá spjøllin verri; 22. ekki heldur eru menn vanir ad koma nýu víni á forna belgi, ad ødrum kosti sprengir hid nýa vínid belgina og spillist, en belgirnir ónýtast; heldur á ad láta nýtt vín á nýa belgi.

23. Svo bar vid, ad Jesús gékk yfir sádlønd nokkur á hvíldar-degi; þá tóku Lærisveinar hans ad tína øx nokkur á leidinni. 24. Farísearnir søgdu þá vid hann: því gjøra Lærisveinar þínir þad, sem ekki sæmir á hvíldardegi? 25. Hann svaradi: hafid þér aldrei lesid, hvad Davíd gjørdi, þegar hann var matþurfi og førunautar hans, 26. ad hann gékk inn í Guds hús, ad ásjáanda hinum ædsta presti Abíatar, og neytti braudanna helgu, sem einginn mátti eta nema prestarnir, og gaf þau einnig sínum fylgdar-mønnum, 27. og enn mælti hann vid þá: hvíldar-dagnrinn er ordinn til mannsins vegna, en madurinn ekki vegna hvíldar-dagsins; 28. Þess vegna er Mannsins Sonur og svo Herra hvíldar-dagsins.

## 3. Kapítuli.

*Jesús læknar marga sjúka; kallar til sín þá 12 Postula, talar um synd á móti heilogum Anda; kennir hvør ad sé hans módir og hvørjir hans brædur.*

1. Í ødru sinni kom hann í samkunduhúsid, og var þar sá madur, er visna hønd hafdi; 2. þá høfdu þeir auga á honum, hvørt hann mundi lækna þann mann á hvíldar-degi, svo þeir gjætu áklagad hann. 3. Þá sagdi Jesús vid manninn, er visnu høndina hafdi: stattu á fætur og láttu sjá þig! 4. þá sagdi hann til þeirra: hvørt er sæmra á hvíldar-døgum, ad gjøra gott edur íllt, géfa líf edur svipta því? en þeir svørudu eingu. 5. Þá litadist hann um med reidi-svip, og vard hryggur yfir hardúd þeirra; sídan segir hann vid manninn: réttu fram hønd þína! hann gjørdi þad og vard hún þá heil. 6. Þá gengu Farísear út, og báru strax saman rád sín á móti honum, vid menn Heródesar Konúngs, hvørninn þeir feingi hann af døgum rádinn. 7. Jesús fór þá ásamt Lærisveinum sínum til sjóar, og fylgdi honum þá margt fólk úr Galíleulandi og Júda-landi, 8. úr Jerúsalem, úr Ídúmea og úr héródum hinumegin Jórdanar; líka kom margt fólk til hans, er bjó í grend vid Týrus og Sídon, sem heyrt hafdi um hans kraptaverk. 9. Þá baud hann Lærisveinum sínum ad hafa sér skip búid, svo fólksfjøldinn skyldi ekki þraungva honum; 10. því søkum þess, ad hann læknadi marga, þá flyktust ad honum allir þeir, er sjúkir voru, svo þeir nædu ad snerta hann; 11. líka féllu þeir, er haldnir vóru af óhreinum øndum, fram fyrir honum, undir eins og þeir sáu hann, æptu og søgdu: þú ert sonur Guds; 12. en hann bannadi þeim hardlega ad segja frá, hvør hann væri.

13. Sídan fór hann uppá eitt fjall, og kalladi til sín þá, er hann sjálfur vildi, og komu

V. 18. sbr. Lúk. 18, 12. V. 23 — 28. sbr. Matt. 12, 1 — 8. Lúk. 6, 1 — 5. V. 26. 1 Sam. 21, 6. V. 1 — 6. Matt. 12, 9 — 14. Lúk. 6, 6 — 11. V. 7 — 12. sbr. Lúk. 6, 17 — 19. V. 13 — 19. sbr. Lúk. 6, 12 — 16. (Matt. 10, 1 — 4).

þeir til hans. 14. Þá tilsetti hann tólf er
vera skyldu með honum, og til að senda þá
frá sér til að flytja hans kénníngu; 15. þeir
áttu og að hafa krapt til að lækna sjúkdóma og
reka djøfla út. 16. Þessir voru: Símon,
hvørn hann kallaði Pétur; 17. þeir bræður
Jakob og Jóhannes, synir Sebedeusar, þá kall-
aði hann Boanerges, það er: þrumendur: 18.
Andrés og Filippus og Bartólómeus og Matte-
us og Tómas og Jakob Alfeusarson og Tadde-
us og Símon vandlætari, 19. og Júdas frá
Karíot, hvørr eð sveik hann.

20. Þegar þeir voru komnir til herbergis, þá
safnaðist þángað að nýu svo mikill fjøldi fólks,
að þeir gátu ekki feingið sér matar. 21. Og
sem náúngar hans heyrðu það, fóru þeir og
vildu ná honum út, því þeir søgðu hann væri
frá sér. 22. En þeir skriftlærðu, er komnir voru
ofan frá Jerúsalem, søgðu Belsebub vera í hon-
um, og að hann ræki djøfla út með fulltíngi
djøfla høfðíngjans. 23. Jesús kallaði þá til
sín, og talaði til þeirra í eptirlíkíngum: hvørn-
inn gétur Satan rekið Satan út? 24. og
hvørt það ríki, sem innbyrðis sundurlyndi er
í, fær ekki staðist, 25. og hvørt það hús, hvar
innbyrðis ósamlyndi er, það hús mun ekki géta
staðist; 26. ef nú Satan er upp í móti sjálfum
sér, og er við sjálfan sig ósamþykkur, fær hann
ekki staðist, heldur er útgjørt um hann. 27.
Enginn gétur brotist inn í hús ens sterka og
rænt fáungum hans, nema hann taki áður þann
sterka til banda; þá fyrst gétur hann rænt
hús hans. 28. Sannlega segi eg yður: að
allskyns syndir, og jafnvel guðlastanir, kunna
mønnunum fyrirgéfnar að verða; 29. en sá,
sem talar lastmæli gégn heiløgum Anda, mun
eigi að eilífu aflát fá, heldur mun hann vinna
til eilífs dómsáfellis. 30. (Því þeir høfðu
sagt: að óhreinn andi væri í honum).

31. Nú kom móðir hans og bræður, stóðu
fyrir dyrum úti og sendu honum orð að koma.
32. En fólkið sat allt í kríngum hann; þá var
honum sagt, að móðir hans og bræður stæðu
úti og vildu finna hann; 33. þá svaraði hann
þeim: hvør er móðir mín eður bræður mínir?
34. Og sem hann hafði rent augunum yfir þá
er í kríngum hann sátu, sagði hann: sjá! þar
er mín móðir og mínir bræður; 35. því hvørr
hann gjørir vilja Guðs, hann er minn bróðir,
mín systir og móðir.

## 4. Kapítuli.

Jesús kénnir í eptirlíkíngum; lætur sjóinn verða kyrran.

1. Og hann tók aptur til að kénna við
sjóinn, dreif þá til hans svo mikill fjøldi fólks,
að hann hlaut að stíga á skip og setjast þar,
en múgurinn allur var á landi fram við sjó-
inn; 2. þá kénndi hann þeim margt í dæmi-
søgum, og mælti til þeirra í sinni kénníngu:
3. géfið gaum að máli mínu! sjá! maður
nokkurr fór að sá; 4. en það vildi svo til,
þá hann var að sá, að sumt sæðið féll við
veginn og fuglar komu og átu það; 5. sumt
féll í grýtta jørð hvar það hafði lítinn jarð-
veg; það óx að sønnu skjótt, því það hafði
lítinn jarðveg; 6. en er sólin hækkaði á lopti,
skrælnaði það og visnaði, søkum þess það hafði
ekki nógar rætur; 7. sumt féll meðal þyrna,
en þyrnarnir uxu upp og kjæfðu það, svo það
bar engan ávøxt. 8. En sumt féll í góða
jørð, það spratt, óx og bar ávøxt, sumt þrítug-
faldan, sumt sextugfaldan og sumt hundrað-
faldan. 9. Nemi þetta — segir hann —
sá, er nema kann! 10. Síðar, er hann var

V. 20—30. sbr. Matth. 12, 24—32. Lúk. 11, 15—23. 12, 10. sbr. Jóh. 8, 48. V. 31—35. sbr. Matth. 12, 46—50. Lúk. 8, 19—21. V. 1—20. Matth. 13, 1—8. Lúk. 8, 5—15. V. 8. 1 Mós. 26, 12.

einnsaman, spurdu þeir, sem med honum vóru, ásamt þeim tólf, um þad, hvad þessi dæmisaga ætti ad þýda? 11. Jesús mælti: ydur er unnt ad skilja leyndardóma Guds ríkis, hinum útífrá hlýtur ad kénnast med dæmisøgum; 12. því þótt þeir horfi med opnum augum, sjá þeir samt ekki, og þótt þeir hlusti med eyrunum, þá skynja þeir ekki; þess vegna bæta þeir ekki rád sitt, til ad ødlast aflát fyrir misgjørdir sínar. 13. Sídan sagdi hann vid þá: ef þér skiljid ekki þessa dæmisøgu, hvørninn gétid þér þá allar dæmisøgur skilid? 14. Sádmadurinn þýdir þann, er kénnínguna flytur; 15. sædid, sem vid veginn var sád, merkir þá, hvørjum kénníngin er flutt, og nær þeir hafa heyrt hana, kémur Satan strax og tekur kénnínguna, er þeim var birt, burt úr hjørtum þeirra. 16. Eins merkir sædid, sem féll í grýtta jørd þá, sem heyra mína kénníngu og veita henni strax vidtøku med føgnudi; 17. en vegna þess ad þeir láta ekki lærdóminn rótfestast, heldur eru óstødugir, þá kasta þeir strax trú sinni, þegar þeir, minnar kénníngar vegna, hljóta mótlæti og ofsóknum ad mæta. 18. Sædid, hvørju sád var medal þyrna, merkir þá, er ad sønnu heyra mína kénníngu, 19. en umhyggja fyrir lífi þessu, táldrægni audæfanna og girndir til annara hluta koma til og kæfja kénnínguna, svo hún verdur ávaxtarlaus. 20. En sædid, er féll í góda jørd, þýdir þá, er heyra mína kénníngu og færa ávøxt, sumir þrítugfaldan, sumir sextugfaldan og sumir hundradfaldan.

21. Sídan sagdi hann vid þá: hvørt plaga menn ad bera inn ljós og hylja þad sídan undir íláti edur bekk? er ekki heldur sídur ad setja þad í ljósastiku? 22. Því ekkért er svo hulid, ad þad ekki verdi opinbert, og ekkért svo fólgid, ad þad ekki verdi augljóst. 23. Nemi þetta hvørr sá, er nema kann! 24. Enn framar sagdi hann vid þá: géfid gaum ad því, sem þér heyrid; med þeim sama mæli, sem þér mælid, mun ydur mælt verda, og vid ydur, sem takid eptir, mun vidbætt verda; 25. þeim, sem hefir, mun veitast, en frá hinum, sem ekki hefir, mun tekid verda jafnvel þad hann hefir.

26. Sídan sagdi hann: eins er því varid med Guds ríki, eins og þegar einhvørr kastar sædi í jørd; 27. hann sefur um nætur, en vakir um daga, en sædid vex og dafnar án þess hann viti þad; 28. því jørdin ber sjálfkrafa ávøxt, fyrst kornstaungina, sídan axid, og seinast fullvaxid korn í axinu; 29. en nær ávøxturinn er fullvaxinn, lætur hann slá kornid, því þá er kornskurdartíminn fyrir hendi.

30. Enn sagdi hann: hvar vid skal eg jafna Guds ríki? edur hvørja eptirlíkíngu skal eg brúka, til ad leida ydur þad fyrir sjónir? 31. Líkt er þad mustards-korni; nær því er sád, er þad hid minnsta allra frækorna; 32. sídan vex þad, og verdur hvørju kálgresi meira, og fær stórar greinir, svo fuglar himins géta leitad sér skjóls í skugga þess. 33. Í mørgum þesskonar eptirlíkíngum framsetti hann kénníngu sína, eins og best átti vid þeirra skilníng; 34. en án eptirlíkínga kénndi hann þeim ekki. Sídan, þegar hann var einnsaman, lagdi hann allt út fyrir Lærisveinum sínum.

35. Ad kvøldi sama dags baud hann Lærisveinum sínum ad fara yfirum sjóinn. 36. Þeir skildu vid fólkid, og fóru med hann med sér á skipinu, eins og hann stód, en ønnur skip fylgdust med honum. 37. Þá gjørdi

V. 21 — 23, sbr. Lúk. 8, 6 — 18, (11, 33 — 35. Matth. 15, 14. 15. 10, 26). V. 24, sbr. Matt. 7, 2. V. 25, sbr. Matt. 13, 12. V. 30 — 34, sbr. Matt. 13, 31. 32. 34. V. 35 — 41. sbr. Matt. 8, 23 — 27: Lúk. 8, 22 — 25.

vedur mikid, svo bylgjurnar féllu yfir skipid, svo ad lá vid ad fyllti; 38. en hann svaf á kodda í skutnum. Þeir fóru þá og vøktu hann og søgdu: Meistari! hirdir þú ekki um þad, ad vér tortínumst? 39. hann reis þá upp, hastadi á vindinn og sagdi vid sjóinn: þegi þú og vertú kyrr! þá lægdi vedrid og vard blída logn; 40. sídan sagdi hann vid þá: því erud þér svo huglausir, hvørju gégnir ydar vantraust? 41. en þeir urdu nærsta hræddir, og søgdu hvørr vid annan: hvílíkur er þessi, er bædi vedur og sjór hlýda?

## 5. Kapítuli.

Jesús rekur djøful út. Læknar sjúka.

1. Þeir komu yfirum sjóinn í hérad þeirra Gadara-manna; 2. og strax, sem hann var stíginn af skipi, hljóp móti honum madur nokkurr, kvalinn af óhreinum anda; 3. hann kom úr grøfum daudra manna, hvar hann hafdi adsetur sitt, og var svo ódur ad ekki tjádi ad setja hann í fjøtur; 4. því opt hafdi hann verid bundinn med fjøtrum og hlekkjum, en hann sleit af sér hlekkina og braut fjøturin, og enginn gat rádid vid hann; 5. um allar nætur og daga var hann á fjøllum, edur í grøfum daudra manna, hrein og lamdi sjálfan sig med grjóti. 6. Nú er hann sá Jesúm álengdar, hljóp hann þángad, heilsadi honum, kalladi hátt og mælti: 7. hvad hefi eg med þig ad gjøra, Jesús, Sonur Guds ens hærsta? eg særi þig vid Gud, ad þú kveljir mig ekki 8. (því Jesús hafdi skipad þeim óhreina anda ad fara út af honum). 9. Þá spurdi Jesús hann ad nafni, en hann segir: Legíó a) heiti eg; því vér erum margir. 10. Þá bad hann Jesúm innilega, ad hann ekki ræki þá burt úr því héradi. 11. En þar var vid fjallid stór svínahjørd á beit; 12. þá bádu djøflarnir hann, ad hann vildi leyfa þeim ad fara í svínin. 13. Jesús leyfdi þeim þetta strax, og fóru hinir óhreinu andar í svínin, og øll hjørdin hljóp fyri bjørg ofan í sjóinn, og kafnadi þar; var þad hér um tvø þúsund svína; 14. en þeir, er gjættu þeirra, flýdu, og søgdu frá þessu bædi í borginni og á lands-bygdinni. 15. Þá fóru menn ad sjá, hvad skéd hafdi, komu til Jesú, og sáu þar þann djøful-óda sitjanda, klæddan og heilvita, þann, er djøfla sægurinn hafdi í verid. 16. Vid þetta urdu þeir hræddir, en þeir, sem vid høfdu verid, søgdu þeim, hvørnig farid hefdi bædi fyrir þeim óda og svínunum. 17. Þá bádu þeir hann, ad hann færi úr þeirra hérødum. 18. Nú er hann steig á skip, beiddi sá, sem ódur hafdi verid, hann leyfis ad fara med honum; 19. þessa synjadi Jesús honum, og sagdi: far þú heim til þín og þinna, og skír þeim frá, hvad mikid gott Gud hefir gjørt þér, og hvørsu hann hefir miskunad þér. 20. Hann fór og skírdi frá því í Dekapólí, sem Jesús hafdi gjørt vid hann, og undrudust þad allir.

21. Þegar Jesús var kominn yfirum á skipinu aptur, safnadist ad honum mikill mannfjøldi, var hann þá staddur vid sjóinn. 22. Þángad kom til hans einn af samkundu-høfdíngjunum, er hét Jaírus, og þegar hann sá Jesúm, féll hann til fóta honum, 23. og bad hann mjøg innilega og sagdi: dóttir mín er ad fram komin; kom og legg hendur þínar yfir hana, svo henni batni; þá mun hún lifa. 24. Jesús fór med honum; honum fylgdi múgur manns, er þreyngdi sér ad honum. 25. Þar var kona nokkur, sem um tólf ár hafdi verid sjúk af blódláti; 26. hún hafdi mikid þolad af mørgum læknum, og kostad þar til aleigu sinni, og þó

V. 1 — 20, sbr. Matt. 8, 28 — 34. Lúk. 8, 26 — 39. V. 9. a. Legíó var rómverskur herflokkur, hvar í optast voru yfir 6000 manns.

ekki batnad, heldur vard henni æ þýngra. 27.
Hún hafdi heyrt frá Jesú, kom í mannþraung-
inni ad baki honum, og snart klædi hans; 28.
því hún hugsadi, ad gjæti hún snert þau, mundi
hún heil verda. 29. Og strax stødvadist blód-
lát hennar, og hún fann á sér, ad hún var
heil ordin meina sinna. 30. Strax fann Jesús
á sér, ad kraptur var út af honum geinginn,
snérist vid í mannþraunginni, og spurdi, hvørr
hefdi hrært vid klædum hans? 31. Þá tóku
Lærisveinar hans til orda: þú sjer ad mann-
fjøldinn þreyngir ad þér, og þó spyr þú: hvørr
hafi hrært vid þér? 32. Þá skygndist Jesús
um eptir þeirri, sem þetta hafdi gjørt, 33. en
hún var hrædd og skjálfandi, því hún vissi,
hvad vid sig hafdi framfarid; kom og féll fram
fyrir hann, og sagdi allt hid sanna. 34. Þá
mælti hann: dóttir! þín trú hefir hjálpad þér;
far í fridi, og vert heil sjúkleika þíns! 35.
En er hann var þetta ad mæla, komu menn
frá heimili samkundu-høfdíngjans, er søgdu:
dóttir þín er látin, því viltú ómaka framar
Meistarann? 36. Strax er Jesús heyrdi þessa
fregn, mælti hann vid Samkundu-høfdíngjann:
vertú óhræddur! trú þú einúngis. 37. Og
nú leyfdi hann eingum ad fylgja sér, nema Pét-
ri, Jakobi og Jóhannesi bródur Jakobs. 38.
Þegar hann kom í hús Samkundu-høfdíngjans,
og sá þar ys mikinn, og þá, er grétu og æptu
mjøg, 39. sagdi hann vid þá: því hrínid þér
og grátid? mærin er ekki daud, heldur sefur hún;
40. en þeir hlóu ad honum. Sídan baud hann
øllum ad fara út og tók med sér fødur og mód-
ur stúlkunnar, og þá, sem med honum voru, og
gékk inn þángad, sem barnid var, 41. tók í
hønd þess og mælti: Talita-kúmí! þad þýd-
ir: stúlka! eg skipa þér, rís þú upp! 42. Og
jafnskjótt reis stúlkan upp, og tók ad gánga;
en hún var tólf ára ad aldri. 43. Þá undr-
udust þeir nærsta; en hann bannadi þeim al-
varlega ad láta nokkurn fá þetta ad vita, og
baud ad géfa henni mat.

## 6. Kapítuli.

Jesús er fyrirlitinn; útsendir Postula; nokkrir ætla hann sé Jóhannes; sedur 5000 manns; geingur á sjónum; læknar.

1. Þadan fór hann til ættjardar sinnar og
Lærisveinar hans voru í fylgd med honum, 2.
og nærsta hvíldardag tók hann til ad kénna í
samkunduhúsinu, og undrudust margir, sem þad
heyrdu, og mæltu: hvadan hefir þessi madur
numid þetta? og hvílíka vitsku hefir hann ødl-
ast, og hvílík eru þau kraptaverk, er hann frem-
ur? 3. er hann ekki smidurinn, sonur Maríu
og bródir þeirra Jakobs og Jósesar, Júdasar
og Símonar? og eru ekki systur hans hér med
oss? og þeir hneyksludust á honum. 4. En
Jesús mælti vid þá: hvørgi er nokkurr Spá-
madur midur virdtur, en á fóstur-jørdu sinni
og medal ættmanna sinna og heima; 5. og
hann gat ekkért kraptaverk gjørt þar, ad und-
anteknu því, ad hann lagdi hendur yfir fáeina
sjúka og læknadi þá, og furdadi hann sig á
trúarleysi þeirra, 6. og fór um þorpin þar í
kríng og kénndi.

7. Nokkru sídar kalladi hann þá tólf til sín,
og sendi þá frá sér tvo og tvo saman, og gaf
þeim vald yfir óhreinum øndum; 8. til ferdar-
innar bannadi hann þeim ad taka nokkud med
sér, nema einúngis staf, en hvørki nestismal,
braud edur fé í beltum sínum, 9. en þeir skyldu
hafa skó á fótum; ekki skyldu þeir heldur klæd-
ast tvennum kyrtlum; 10 og enn framar sagdi
hann vid þá: haldid kyrru fyrir í hvørju því
húsi, er þér takid ydur gistíngu, þar til þér

V. 21—43, sbr. Matt. 9, 1. 18—26. Lúk. 8, 41—56. V. 1—6, sbr. Matt. 13, 58. (Jóh. 6, 42). V. 7—13, sbr. Matt. 10, 5. ff. Lúk. 9, 1—6. 10, 1. ff.

farid úr því þorpi, 11. en hvar menn ekki vilja veita ydur móttøku edur heyra ydur, þá farid þadan og hristid dupt af fótum ydar til vitnis gégn þeim. 12. Þeir fóru og kéndu fólkinu ad bæta ráð sitt, 13. ráku marga djøfla út, og smurdu marga sjúka med vidsmjøri, og læknudu þá.

14. Þetta heyrdi Heródes Konúngur, (því miklar søgur geingu nú frá Jesú), þá søgdu menn: Jóhannes Skírari er endurlifnadur og því gjørast slík kraptaverk af honum. 15. Sumir søgdu hann a) væri Elías, adrir, ad hann væri spámadur, líkur þeim fyrri spámønnum. 16. En er Heródes heyrdi þetta, mælti hann: Jóhannes, sem eg hefi látid hálshøggva, er nú endurlifnadur. 17. Því ádur hafdi Heródes látid høndla Jóhannes og setja í myrkvastofu vegna Heródíadis, konu Filippusar bródur hans, hvørja Heródes nú hafdi geingid ad eiga; 18. því Jóhannes hafdi sagt vid Heródes: þú mátt ekki eiga bródurkonu þína. 19. Vegna þessa var Heródíadi ílla til Jóhannesar og vildi ráda honum bana, en gat þad ekki, 20. því Heródes virdti Jóhannes, þar hann vissi hann vera réttlátan og helgan mann, og verndadi hann, og gjørdi margt ad hans rádum, og heyrdi hann gjarna. 21. En sem hentugur dagur kom, þá Heródes gjørdi veitslu á sínum fædíngar-degi fyrir gjædíngum sínum, þúshundrads høfdíngjum og enum helstu mønnum í Galíleu, 22. kom inn dóttir Heródíadis og dansadi, svo Heródesi og þeim, sem bodnir voru, líkadi þad vel. Þá sagdi Konúngurinn vid stúlkuna: bid mig hvørs þú vilt, og mun eg veita þér. 23. Og lofadi henni med eidi: hvørs þú beidist af mér, þá mun eg veita þér allt ad helmíngi ríkis míns; 24. en hún gékk út, og spurdi módur sína: um hvad skal eg bidja? 25. Hún mælti: um høfud Jóhannesar Skírara. Hún kom inn aptur med skyndi til Konúngsins, og mælti: eg vil ad þú géfir mér strax høfud Jóhannesar Skírara á diski. 26. Vid þetta vard Konúngurinn nærsta hryggur, en søkum eids þess, er hann hafdi unnid, og bodsmanna sinna, vildi hann ekki synja henni þess; 27. sendi þá Konúngurinn strax einn vardmanna sinna b) og skipadi ad færa sér høfud Jóhannesar; 28. en hann fór og afhøfdadi hann í myrkvastofunni, kom med høfudid á fati og færdi meyunni, en hún bar þad til módur sinnar. 29. En er Lærisveinar hans heyrdu þetta, komu þeir, tóku lík hans og løgdu þad í grøf.

30. Postularnir komu aptur til Jesú, og søgdu honum frá øllu því, sem þeir høfdu gjørt og ként; 31. þá sagdi Jesús til þeirra: farid med mér einir saman á afvikinn stad, og hvílist þar um stund, því svo margir vóru komandi og farandi, ad þeir høfdu ekki mat-frid. 32. Sídan fóru þeir einir sér á skipi til óbygda, 33. en menn sáu þegar þeir fóru burt, og margir þekktu þá; hlupu menn því saman þángad á fæti úr øllum borgum og komu þeir á undan þeim og fundu hann. 34. Og er hann steig af skipi, sá hann þar mikinn mannfjølda, og kéndi í brjósti um þá, því þeir vóru sem saudir án hirdis, og prédikadi fyrir þeim um marga hluti; 35. en er mjøg var álidid dags, komu Lærisveinar hans til hans og søgdu: vér erum hér í eydi-stad, og framordid er dags, 36. lát þá frá þér, svo þeir géti farid í bygdina og þorp-

V. 14—29, sbr. Matt. 14, 1—13. Lúk. 9, 7—9. V. 15. *a.* Hann, nefnil. Jesús; Gydingar héldu, ad Elías og jafnvel fleiri spámenn mundu upprísa, ádur Messías kæmi, Jóh. 1, 21—25. V. 27. *b.* Konúngar pløgudu fyrr meir, ad láta vardmenn sína aflífa þá, sem þeir vildu feiga. V. 30—44, sbr. Matt. 14, 13—21. Lúk. 9, 10—17. Jóh. 6, 1—13.

in hér um kríng og keypt sér vistir, því þeir
hafa alls ekkért til matar. 37. Jesús mælti:
géfid þér þeim mat. Þeir søgdu til hans: skul-
um vér fara og kaupa þeim mat fyrir 200
penínga, og géfa þeim ad eta? 38. Jesús mælti
þá: hve mørg braud hafid þér? farid og gætid
ad því! þeir gjørdu svo, og søgdust hafa fimm
braud og tvo fiska. 39. Þá baud hann þeim
ad láta fólkid setjast nidur hópum saman í grasid,
40. og þad settist nidur í flokkum, og vóru
hundrad í sumum, en fimmtýgir í sumum. 41.
Þá tók Jesús þau fimm braudin og þá tvo fiska,
leit til himins, gjørdi Gudi þakkir, braut braud-
in, og fékk þau Lærisveinum sínum, ad þeir legdu
þau fyri fólkid; slíkt hid sama skipti hann þeim
tveimur fiskum medal allra; 42. en þeir neyttu
allir, og urdu saddir. 43. Sídan tóku þeir
upp molana, og urdu þad tólf karfir fullar, og
einnig fiskleifarnar; 44. en þeir, sem neytt
høfdu matarins, vóru ad tølu fimm þúsundir
manna.

45. Strax er þessu var lokid, baud hann Læri-
sveinum sínum ad stíga á skip og fara undan sér
yfirum til Betsaída, medan hann skildi fólkid
vid sig; 46. en er hann hafdi látid fólkid frá sér,
fór hann uppá fjallid ad bidjast fyrir; 47. og
er kvøld var komid, var skipid á midju vatninu,
en hann einn á landi; 48. sá þá Jesús, ad ród-
urinn gékk þeim mjøg ørdugt, því andvidri var
á. En nær fjórdúngur lifdi nætur, kom hann
til þeirra, og gékk á sjónum, og lét sem hann
ætladi ad gánga framhjá þeim. 49. En er
þeir sáu hann gánga á sjónum, meintu þeir ad
þad mundi vera vofa, og æptu upp yfir sig;
50. því allir sáu þeir hann, og urdu felmturs-
fullir. Hann varpadi þá strax ordum á þá,
og mælti: verid hughraustir, eg er þad, óttist
ekki! 51. Sídan fór hann upp í skipid til þeirra;
lægdi þá vedrid. Og þeir urdu mjøg frá sér
numdir og undrudust; 52. því þeir høfdu ekki
ordid hyggnari vid brauda-táknid, þared hjarta
þeirra var svo blindad.

53. Sídan fóru þeir yfirum og lendtu vid
Genezarets land. 54. Og er þeir stigu af skipi,
þekkti fólkid hann strax, 55. og hljóp um allt þad
bygdarlag, og tóku ad færa sjúka í burdar-rekk-
jum þángad, sem þeir heyrdu hann væri; 56.
og hvar, sem hann fór inn í þorp, borgir edur
bæi, þá løgdu þeir vanheila menn á torgin, og
bádu hann, ad þeim mætti leyfast ad snerta ein-
úngis klædafald hans; því þeir, sem snertu þar
vid, urdu heilbrigdir.

## 7. Kapítuli.

Jesús tekur í forsvar Lærisveina sína, útrekur djøful; læknar daufan og málhaltan.

1. Þá komu til hans Faríseár og nokkrir
skriftlærdir menn, er komnir vóru frá Jerúsal-
em; 2. og er þeir sáu, ad nokkrir af Lærisvein-
um hans tóku til sín fædu med vanheiløgum
høndum, þad er: óþvegnum, 3. (því Faríseár
og Gydíngar yfir høfud fá sér ekki mat, nema
þeir ádur taki handlaugar, og fylgja þeir í þessu
tilskipunum Öldúnganna; ekki heldur eta þeir
matvæli, sem á torgi eru keypt, nema þeim sé ád-
ur dýft í vatn, 4. og margt annad er þad, er
þeir hafa undirgengist ad gæta, svo sem er þvott-
ur á drykkjar-kérum, kønnum, eir-kérum og
bord-bekkjum): 5. Þá tóku Faríseár og hinir
skript-lærdu svo til orda: því fylgja Lærisveinar
þínir ekki tilskipunum hinna gømlu, heldur mat-
ast med óhreinum høndum? 6. Jesús mælti:
snoturlega hefir Esajas fyrisagt um ydur, þér skin-
helgir! þad skrifad er: „lýdur þessi heidrar mig
med vørunum, en hjørtu þeirra eru lángt frá
mér; 7. þeirra dýrkan á mér er hégómleg, er þeir

V. 45 — 52, sbr. Matt. 14, 22 — 33, Jóh. 6, 16 — 21. V. 47. Matth. 14. V. 1. Matt. 15, 1. V. 2. Lúk. 11, 38. V. 6. Es. 29, 13.

kénna þad, sem eru manna tilskipanir." 8. Þér skeytid ekki bodum Guds, en haldid fast vid manna tilskipanir, svo sem er þvottur á könnum og drykkjukérum, og margt fleira þesskáttar gjörid þér. 9. Enn framar sagdi hann: dáfallega vitid þér ad ónýta Guds bod, svo þér gétid fylgt ydar eigin setníngum! 10. Því Móses hefir sagt: „heidra födur þinn og módur, og hvörr hann formælir födur edur módur, skal rétt dræpur"; 11. þar á mót segid þér: ef einhvör segir vid födur edur módur: eigur þær, hvar med eg kynni ad hjálpa þér, eru heit-fé, 12. þá leyfid þér honum ekki ad gjöra foreldrum sínum nokkud gott framar af þeim, 13. og ónýtid þannig Guds lög, med ydar eigin tilskipunum, þeim er þér sjálfir hafid tilsett; og margt annad gjörid þér þessu líkt. 14. Sídan kalladi hann saman allan lýdinn, og tók svo til máls: hlýdid mér allir, og géfid gaum ad því eg segi! 15. ekkért er þad fyrir utan manninn, sem inn í hann fer, er hann kunni saurga, heldur þad, sem útfer af manninum, þad er þad sem saurgar hann. 16. Hvör hann hefir eyru ad heyra, hann heyri! 17 En er hann var kominn inn frá fólkinu, spurdu lærisveinarnir hann um þýdíngu þessarar dæmisögu. 18. Jesús mælti: erud þér einninn svo skilníngslausir? skynijd þér ekki, ad ekkért af því, sem utanfrá kémur inní manninn, gétur saurgad hann; 19. því ekki fer þad inní hjarta hans, heldur í magann, hvadan þad fer, eptir edlilegri rás, hvör ed fæduna hreinsar. 20. Þar á mót, sagdi hann, þad sem útfer af manninum, saurgar hann; 21. því ad innan frá hugskoti mannsins koma illar hugrenníngar, hór, frillulífi, manndrap, 22. þjófnadur, fégirni, illmennska, hrekkvísi, ósijórnlegt líferni, öfund, lastmæli, drambsemi, gudleysi; 23. allt þetta kémur ad innan og saurgar manninn.

24. Hédan fór hann þar til, er skilur land Týrusar og Sídónar, og gékk þar inn í hús nokkurt, og vildi ad enginn skyldi verda var vid, en gat þó ekki dulist, 25. því kona nokkur, hvörrar dóttir kvalin var af óhreinum anda, frétti til hans, kom og féll honum til fóta; 26. hún var heidin, sýrlendsk ad ætt, úr Fenisía. Þessi kona beiddi hann ad reka djöfulinn út frá dóttur sinni. 27. Jesús mælti: lofadu börnunum ad matast fyrst, því ekki sæmir ad taka braudid frá þeim og snara því fyrir hvolpa. 28. Satt er þad, Herra! sagdi hún; þó eta hvolparnir molana undir bordum barnanna. 29. Hann mælti: sökum þessa svars, þá far þú heim, djöfullinn er útfarinn af dóttur þinni. 30. Og er hún kom heim, fann hún ad djöfullinn var útfarinn, en dóttir hennar lá í rekkju.

31. Frá landamerkjum Týrusar og Sídónar fór hann aptur til sjáfarins í Galílæu, yfir Dekapólis land; 32. hér færdu þeir honum mann daufan og málhaltan; þeir bádu hann ad leggja hendur yfir hann. 33. Jesús veik honum til sídu frá fjölmenninu, stakk fíngrum sínum í eyru honum, hrækti frá sér, og hrærdi vid túngu hans, 34. leit upp til himins, andvarpadi og sagdi vid hann: Effata! þad þýdir: opna þú þig! 35. Og strax opnudust hans hlustir, og hapt hans túngu losnadi, og hann taladi skírt. 36. Frá þessu bannadi hann ad segja nokkrum; en þess meir sem hann bannadi þetta, því framar vídfrægdu þeir þad, 37. og sögdu nærsta undrunarfullir: allt gjörir hann dásamlega, því heyrnarlausum géfur hann heyrn og málleysum mál.

---

V. 10, 2 Mós. 20, 12. 21, 17. V. 24 — 30. sbr. Matt. 15, 21 — 28. V. 31 — 37. sbr. Matt. 15, 29 — 31. (Lúk. 11, 14).

## 8. Kapítuli.

Jesús mettar 4000 manna; talar um súrdeig Heródesar og Faríseanna; gefur sýn. Medkénning Lærisveinanna um Jesús.

1. Um þessar mundir bar enn svo vid, ad
mikill fólksfjøldi var hjá honum, og hafdi ekk-
ért til matar. Þá kalladi Jesús á Lærisveina
sína og sagdi: 2. eg aumkast yfir fólk þetta,
þad hefir nú hjá mér verid í þrjá daga og
ekkért til matar haft; 3. en ef eg læt þá fara
frá mér fastandi til heimila sinna, verda þeir
magnþrota á veginum; því sumir af þeim
voru lángt ad komnir. 4. Þá svørudu Læri-
sveinar hans: hvørninn fær nokkurr fædt þá
hér í óbygdum? 5. hann spurdi þá: hvørsu
mørg braud þeir hefdu? þeir søgdu: sjø. 6.
Sídan baud hann fólkinu ad setjast nidur, tók
þau sjø braud, gjørdi Gudi þakkir, braut þau
og fékk þau sídan Lærisveinum sínum, ad þeir
legdu þau fyrir fólkid. Þeir gjørdu, sem þeim
var bodid. 7. Líka høfdu þeir fáeina smáfiska;
hann þakkadi einninn Gudi fyrir þá, og baud,
ad þá skyldi einninn frambera; 8. en þeir neyttu
og urdu mettir. Sídan søfnudu þeir matar
leifunum, og voru þad sjø karfir; 9. en þeir
sem neytt høfdu, vóru hér um fjøgur þúsund;
og ad því búnu lét hann þá frá sér fara.

10. Strax eptir þetta fór hann á skipi med
Lærisveinum sínum, og kom í héradid vid Dal-
manúta. 11. Hér komu Faríseear og tóku ad
hefja vid hann spurníngar, samt krefjast teikns
af himni, til ad reyna hann; 12. andvarpadi
hann þá þúngan og mælti: þjód þessi beidist
teikns, en eg segi ydur satt, henni skal ekki
teikn gefast. 13. Sídan skildist hann vid þá,
steig aptur á skip og fór yfirum a). 14. Þeim
hafdi gleymst ad taka med sér braud, svo þeir
høfdu ekki nema eitt í skipinu; 15. þá baud
Jesús þeim og sagdi: varist súrdeig þeirra Farí-
sea og Heródesar. 16. Þá søgdu þeir sín á
milli, ad Jesú mundi segja þetta í því skyni,
ad þeim hefdi gleymst ad taka braud med; 17.
en er hann vard þess vís, mælti hann: því
fáist þér um þad, ad þér ekki tókud braud med?
edur skiljid þér enn ekki? eru vitsmunir ydar enn
þá svo sljófir? 18. sjáid þér ekki med berum
augum? heyrid þér ekki med opnum eyrum? 19.
edur munid þér ekki, þegar eg skipti þeim fimm
braudum medal fimm þúsunda, hvørsu margar
karfir med matar-leifar hirdtud þér þá? 20.
þeir svørudu: tólf. Edur þegar eg skipti þeim
sjø braudum medal fjøgra þúsunda, hvørsu
margar karfir fullar høfdud þér þá afgángs? 21.
þeir søgdu: sjø! þá mælti hann: hvørs vegna
getid þér þá ekki þetta skilid?

22. Sídan komu þeir til Betsaída borgar;
hér færdu þeir til hans blindan mann og bádu
ad hann snerti hann. 23. Jesús tók í hønd
honum, og leiddi hann út fyrir borgina, hrækti
í augu hans, lagdi hendur yfir hann, og spurdi
hann: hvørt hann sæi nokkud? 24. hann lit-
adist um og mælti: eg sje mennina gánga, eins
og eg sæi tré. 25. Í annad sinn fór Jesús
høndum um augu hans, og bad hann líta upp,
var hann þá ordinn heilskygn, og sá alla gløggt;
26. honum baud Jesús ad fara til heimilis
síns, en ekki inn í borgina, ekki heldur segja
nokkrum í þorpinu frá þessu.

27. Hédan fór Jesús og hans Lærisveinar
í þau þorp, er liggja í grend vid borgina Cæ-
sarea, sem kénd er vid Philippus. Á veginum
spurdi hann Lærisveina sína: hvørn menn héldu
hann vera? 28. Þeir søgdu: sumir halda þú
sért Jóhannes Skírari, adrir, ad þú sért Elías,

V. 1—9. sbr. Matt. 15, 32—39. V. 10—21, sbr. Matt. 15, 39. 16, 1—12. V. 10. Dalmanúta, stadur austanverdt vid Galileuvatn. V. 13. a) Yfirum, þ. e. til baka vestur yfir vatnid. V. 15, sbr. Lúk. 12, 1. V. 27—39, sbr. Matt. 16, 13—28. Lúk. 9, 18—27.

enn adrir, ad þú sért einn af Spámønnunum. 29. Þá mælti hann: en hvørr haldid þér eg sé? Honum svaradi Pétur og mælti: þú ert Kristur; 30. en hann bannadi þeim ad segja nokkrum frá því. 31. Eptir þad tók Jesús ad segja þeim frá: ad sér bæri margt ad lída, útskúfast af Øldúngunum, enum ædstu Prestum og þeim Skriftlærdu; líka lífláttinn ad verda, en endurlifna á þridja degi eptir. 32. Þetta sagdi hann þeim med berum ordum. Þá tók Pétur hann affídis, og fór ad átelja hann; 33. en hann snérist vid, leit til Lærisveina sinna, og ávítadi Pétur med svofeldum ordum: far þú frá mér, Satan! því þú skynjar ekki Guds fyrirætlanir, heldur manna. 34. Ad svo mæltu kalladi hann á fólkid og Lærisveina sína, og sagdi: hvørr, sem vera vill í minni fylgd, afneiti siálfum sér, taki sinn kross, og fylgi mér eptir; 35. því hvørr, sem hyggst ad forda lífi sínu, mun því týna; en hvørr, sem vogar því í hættu fyrir mínar edur nádarbodskaparins sakir, mun fá því borgid; 36. því ad hvørju gagni kjæmi þad, þótt madur eignadist allan heiminn, ef hann lídi tjón á sálu sinni; 37. eda hvad gétur madurinn géfid til lausnar sálu sinni? 38. því hvørr, sem ekki vill kannast vid mig og mína kénníngu fyrir þessari hórunarsømu og syndugu kynslód, vid hann mun Mannsins Sonur ekki heldur kannast, þegar hann kémur med helgum englum í dýrd fødur síns. 39. Enn framar sagdi hann: trúid mér, ad hér eru nú vidstaddir nokkrir þeir, sem audnast mun ad lifa svo lengi, ad þeir sjái ríki Guds a) koma med krapti.

## 9. Kapítuli.

Jesús um-myndast á fjallinu; útrekur málleysis og heyrnarleysis anda; talar um dauda sinn; straffar metorda girnd Lærisveinanna, o. s. frv.

1. Þegar lidnir voru sex dagar, tók Jesús Pétur, Jakob og Jóhannes med sér eina saman, og fór med þeim uppá hátt fjall. Hér breyttist yfirlitur hans fyrir þeirra augum; 2. urdu klædi hans skínandi og hvít, sem snjór; hvítari en nokkurr þvotta-madur í heimi kann ad gjøra. 3. Þá birtist þeim Elías og Móses, og vóru þeir á tali vid hann. 4. Þá tók Pétur svo til orda vid Jesúm: Meistari! hér er oss gott ad vera, vér viljum reisa hér þrjár tjaldbúdir, eina handa þér, adra handa Móse, og hina þridju handa Elíasi; 5. en hann vissi ekki, hvad hann sagdi, því felmtur var yfir þá kominn. 6. Þá dró yfir þá ský, og úr því heyrdist rødd, er mælti: þessi er sonur minn elskulegur, hlýdid þér honum! 7. Strax litudust þeir um, og sáu engan framar hjá sér, nema Jesúm einan. 8. Nú er þeir gengu nidur eptir fjallinu, þá bannadi hann þeim ad segja nokkrum frá því, er þeir hefdu sjed, fyrr en Mannsins Sonur væri upprisinn frá daudum. 9. Þeir hugfestu þetta ord, og spurdu hvørr annan, hvad þad ætti ad þýda, ad upprísa frá daudum? 10. og spurdu hann: því segja hinir skriftlærdu: ad Elías eigi ádur ad koma? 11. Jesús mælti: Elías kémur ad sønnu fyrst, og lagfærir allt; og þad mun fara, eins og skrifad er um Mannsins Son, ad hann lídi margt og verdi fyrilitinn; 12. en trúid mér, Elías er kominn, og þeir breyttu vid hann, sem þeim líkadi, eins og spád er um hann.

13. Þegar hann kom til Lærisveina sinna, sá hann, ad mikill fjøldi fólks var hjá þeim, og hinir skriftlærdu sem spurdust á vid þá; 14. en strax, sem fólkid sá hann, hnykti því vid, hljóp til og heilsadi honum. 15. Jesús spurdi

---

V. 39. *a*· Þ. e. Krists lærdóm útbreidast og hans kyrkju eflast, V. 1 — 12. Matt. 17, 1 — 13. Lúk. 9, 28 — 36. V. 12. Salm. 22. Esa. 53. Dan. 9, 26. V. 13 — 23, sbr. Matt. 17, 14 — 21. Lúk. 9, 37 — 43.

þá: um hvad þeir væru ad fást? 16. honum
svaradi einn af fólkinu á þessa leid: Meistari!
eg hefi flutt son minn til þín, hann er þjádur
af málleysis anda; 17. nær andinn hrífur hann,
kastar hann honum nidur, og þá frodufellir
hann og gnístir tønnum og verdur máttvana.
Eg bad Lærisveina þína ad reka hann út, en
þeir orkudu þess ekki. 18. Þá sagdi Jesús:
þú trúarlausa þjód! hvørsu leingi skal eg hjá
ydur vera? hvørsu leingi skal eg umbera yd-
ur? færid mér hann! 19. þeir gjørdu svo; en
strax, sem hann sá Jesúm, teygdi andinn hann
sundur og saman, féll hann þá til jardar, velt-
ist um og frodufelldi. 20. Jesús spurdi þá fød-
ur hans: hvørsu lángt væri, sídan þetta hefdi
viljad honum til? hann kvad hann hafa haft
þenna sjúkdóm frá barnæsku. 21. Opt hef-
ir andinn — sagdi hann — kastad honum
bædi á eld og í vatn til ad fyrirfara honum;
en ef þú ert nokkurs orkandi, þá hjálpa þú okkur,
og kénn þú í brjósti um okkur! 22. Jesús mælti:
þad skal ské, ef þú gétur trúad; trúudum er allt
møgulegt. 23. Strax grét fadir sveinsins há-
støfum og sagdi: já! eg trúi, en hjálpa þú
trúarleysu minni! 24. Nú er Jesús sá, ad
fólkid þyrptist ad, taladi hann svo til hins ílla
anda: eg býd þér, þú andi! sem veldur mál-
og heyrnar-leysi manns þessa, ad þú farir út
af honum, og komir aldrei aptur. 25. Hann
hrein þá og teigdi hann mjøg sundur og sam-
an, sídan fór hann út; en sveinninn lá eptir,
sem væri hann daudur, svo margir søgdu, ad
hann væri látinn; 26. Jesús tók þá í hønd
hans og reisti hann á fætur, og þá stód hann
upp. 27. Þegar Jesús var kominn heim, spurdu
Lærisveinar hans einslega: því þeir ekki hefdu
gétad rekid hann út? 28. Jesús mælti: þetta
kyn verdur ekki útrekid, nema med bæn og føstu.

29. Þegar þeir fóru þadan yfir Galíleu,
vildi Jesús ekki ad nokkur skyldi vita þad;
30. því hann var þá ad kénna sínum Læri-
sveinum, og sagdi þeim ad mannsins sonur ætti
ad ofurseljast í manna hendur, sem mundu
taka hann af lífi, en eptir þad hann væri
líflátinn, mundi hann upprísa á þridja degi.
31. En þeir skildu þad ekki, en þordu þó ekki
ad spyrja hann um þad.

32. Hann kom til Kapernaum, og þegar
hann kom til herbergis síns, spurdi hann Læri-
sveina sína, hvad þad hefdi verid, sem þeir
hefdu verid ad tala um á veginum sín á milli;
33. en þeir þøgdu, því þeir høfdu verid ad
tala um á veginum, hvørr þeirra mestur væri.
34. Hann settist þá nidur, og kalladi til sín þá
tólf, og mælti svo til þeirra: hvørr ydar,
sem vill vera mest metinn, veri hann lægstur
allra og allra hinna þjón. 35. Sídan tók
hann barn eitt, og setti þad medal þeirra,
fadmadi þad, og mælti: 36. hvørr, sem med-
tekur þvílíkt barn mín vegna, þad er sem med-
tæki hann sjálfan mig; en hvør hann medtek-
ur mig, hann medtekur ekki mig einúngis,
heldur þann, sem mig sendi. 57. Þá tók
Jóhannes til orda og mælti: Meistari! vér
sáum mann einn, sem í þínu nafni rak djøfla
út, og vér bønnudum honum þad, af því hann
var ekki af vorum flokki. 38. Jesús sagdi:
bannid honum þad ekki; því einginn sá, sem
gjørir kraptaverk í mínu nafni, talar strax á
eptir ílla um mig. 39. Hvørr, sem ekki er á
móti ydur, hann er med ydur; 40. hvørr, sem
géfur ydur vatnsdrykk vegna mín, vegna þess,
ad þér heyrid Kristi til, honum mun þad ekki
ólaunad vera. 41. Tæli einhvørr nokkurn til
ílls af þessum smælíngjum, sem trúa á mig,
betra væri honum, ad mylnusteinn hengi um

V. 29—31, sbr. Matt. 9, 22. 23. Lúk. 9, 44. 45. V. 32—47, sbr. Matt. 18, 1—11. 20, 26. 27. 10, 40—42. Lúk. 9, 46—50.

háls honum, og honum væri í sjó sökkt. 42. Ef þín hægri hönd lokkar þig til ills, þá högg þú hana af; betra er þér ad inngánga handarvana til lífsins, en ad hafa bádar hendur heilar og fara til helvítis í þann óslökkvanda eld, 43. hvar ormur þeirra ekki deyr og eldur aldrei slokknar. 44. Ef ad fótur þinn lokkar þig til ills, þá högg þú hann af; betra er þér höltum ad inngánga til lífsins, en ad þú hafir báda fætur heila, og þér verdi kastad í helvíti í þann óslökkvanda eld, 45. hvar ormur þeirra aldrei deyr og eldur aldrei slokknar. 46. Ef auga þitt tælir þig til ills, þá slít þú þad út; betra er þér ad koma eineygdum í Guds ríki, en ad þú hafir bædi augu þín, og þér verdi kastad í helvítis eld, 47. hvar ormur þeirra ekki deyr, og eldur ekki slokknar. 48. Því sérhvörr á ad saltast med eldi, eins og sérhvör fórn á ad saltast med salti. 49. Saltid er gódur hlutur, en láti þad krapt sinn, med hvörju viljid þér þá selta þad? Haldid seltunni í ydur, og verid samlyndir innbyrdis.

## 10. Kapítuli.

*Jesús talar um hjónaband; tekur úngbörn sér í fadm; talar um hina ríku, um tímanleg verdlaun, um dauda sinn; áminnir til lítilætis, læknar blindan.*

1. Sídan fór hann þadan og kom í landsbygdir Júdeu fyrir handan Jórdan, kom þá enn til hans fjöldi fólks, og kéndi hann þeim enn, eins og hans var sidur til. 2. Hér komu til hans Faríseär og spurdu hann, til ad freista hans: hvört madur mætti segja skilid vid konu sína? 3. hann svaradi: hvad hefir Móses bodid ydur í þessu efni? 4. þeir sögdu: ad Móses hefdi leyft ad rita skilnadar-skrá og segja skilid vid hana. 5. Jesús mælti: þetta hefir Móses leyft ydur sökum hardúdar ydar; 6. en frá fyrstu sköpun gjördi Gud þau mann og konu; 7. þar fyrir á madurinn ad yfirgéfa födur og módur, og lifa svo sameinadur med konu sinni, 8. sem væru þau einn madur; þau eru því ekki framar tveir, heldur einn madur; 9. en hvad Gud hefir sameinad, meiga menn ekki adskilja. 10. Þegar þeir vóru heimkomnir, spurdu Lærisveinarnir hann á ný um þetta sama efni; 11. þeim sagdi hann: hvörr sem segir skilid vid konu sína og geingur ad eiga adra, hann drýgir hór mót henni, 12. og ef kona skilur vid mann sinn og giptist ödrum, þá drýgir hún líka hór.

13. Nú færdu menn börn til hans, til þess ad hann skyldi hræra vid þeim, en Lærisveinarnir ávítudu þá, sem þetta gjördu. 14. Þegar Jesús vard þess vís, líkadi honum þad illa og mælti: látid börnin koma til mín og bannid þeim þad ekki, því slíkum heyrir Guds ríki til; 15. trúid mér! hvörr, sem ekki medtekur Guds ríki eins og barn, mun aldrei þángad koma. 16. Sídan fadmadi hann börnin ad sér, lagdi hendur yfir þau og blessadi þau.

17. En þegar hann var kominn út á veginn, kom madur hlaupandi, laut honum og mælti: gódi meistari! hvad skal eg gjöra til þess eg öðlist eilíft líf? 18. Jesús mælti: því kallar þú mig gódan? Einginn er gódur nema Gud einn. 19. Bodordin veitstú: þú

V. 43, sbr. Es. 66, 24. V. 48. Saltast med eldi, þ. e. med því ad strída mótt sínum rádríkustu girndum. (V. 42 — 46), eiga menn ad undirbúa sig til eilífs lífs, eins og sérhvör fórn undirbjóst til þess ad verda Gudi velþókknanleg, med saltinu, 3 Mós. 2, 13. V. 49, sbr. Matt. 5, 13, Lúk. 14, 34 — 35. V. 1 — 12, sbr. Matt. 19, 1 — 12. V. 4, sbr. 5 Mós. 24, 1. V. 6. sbr. 1 Mós. 2, 24. V. 13 — 16, sbr. Matt. 19, 13 — 15. V. 17 — 31, sbr. Matt. 19, 16 — 30. Lúk. 18, 18 — 31.

skalt ekki drýgja hór; ekki mann vega; ekki
stela; ekki bera ljúgvitni; ekki svíkja; heidra
födur þinn og módur. 20. Hinn svaradi:
Meistari! þetta allt hefi eg haldid frá barn-
æsku minni. 21. Jesús leit þá til hans, elsk-
adi hann og mælti: eins er þér enn vant:
sel þú allar eigur þínar og gef fátækum, og
munt þú fjársjód hafa á himni; kom sídan,
tak minn kross og fylg mér. 22. En er hann
heyrdi þetta, kom sorgarsvipur yfir hann, og
fór hriggur í burtu, því hann var madur
audugur. 23. Þá litadist Jesús um og mælti
vid Lærisveina sína: hvörsu torveldt er þeim
ríku ad ødlast Guds ríki! 24. Vid þetta
hnykti Lærisveinum hans: þá mælti Jesús:
børn mín! hve torveldt er þeim, sem setja
traust sitt á audinn, ad inngánga í Guds ríki;
25. audveldara er úlfaldanum ad gánga í gégnum
nálaraugad, en ríkum manni ad komast í Guds
ríki. 26. Vid þetta brá þeim enn þá meir,
og sögdu sín á milli: hvörr mun þá verda
hólpinn? 27. Jesús leit til þeirra og mælti:
fyrir manna sjónum er þad ómögulegt, en ekki
fyrir Gudi; honum er ekkért um megn.

28. Þá tók Pétur svo til ords: vér yfirgáf-
um allt og gáfumst þér til fylgdar. 29. Jesús
mælti: trúid mér! enginn hefir svo yfirgéfid
heimili sitt, brædur edur systur, födur edur mód-
ur, konu edur børn edur fasteign, mín edur nád-
arbodskaparins vegna, 30. ad honum ekki veit-
ist nú þegar í þessu lífi, og þad jafnvel midt í
ofsóknunum, hundradfaldt aptur, heimili, bræd-
ur, systur, mædur, børn og fasteign; og hér á
ofan í ødrum heimi eilíft líf; 31. en þá munu
margir þeir, er fyrstir eru, verda sídastir, og ein-
ir sídustu fyrstir.

32. Nú héldu þeir til Jerúsalem, fór þá Jes-
ús fyrir, því Lærisveinar hans vóru felmturs-
fullir og fylgdu honum med ótta; þá tók hann
þá tólf aptur til sín, og sagdi þeim hvad fyrir
sér lægi. 33. Vér førum nú — sagdi hann —
til Jerúsalem; þar mun Mannsins Sonur verda
framseldur þeim ædstu prestum og skript-lærd-
um; þeir munu dæma hann til dauda og fram-
selja hann heidnum mønnum; 34. þeir munu
hæda hann, húdstrýkja, hrækja á hann og taka
hann af lífi, en á þridja degi mun hann upprísa.

35. Þá komu til hans þeir synir Sebedeus-
ar, Jakob og Jóhannes, og mæltu: Meistari!
veittú okkur eina bæn; 36. hann spurdi hvörs
þeir beiddust? 37. veittú okkur — sögdu þeir —
ad vid megum sitja hvörr til sinnar hlidar þér,
þegar þú setst ad ríki þínu. 38. Jesús mælti:
þid vitid ekki hvörs þér beidist; hvört treystid
þid ykkur ad drekka þann bikar, sem mér er ætl-
adur, edur skírast skírn þeirri, sem eg á fyrir
høndum? 39. þeir kvádust þad géta. Jesús
mælti: þann bikar, sem mér er ætladur, munud
þid ad sønnu drekka, og skírast skírn þeirri, sem
mér er fyrir høndum; 40. en ad sitja mér til
hægri edur vinstri handar, stendur ekki í mínu
valdi ad veita; þeir einir munu þad hljóta, sem
þad er ætlad. 41. Þegar hinir tíu heyrdu
þetta, mislíkadi þeim mjøg vid þá Jakob og Jó-
hannes. 42. Þá kalladi Jesús þá til sín og
mælti: þér vitid, ad þeir, sem løndum ráda, drottna
hardlega yfir undirsátum sínum og gædíngar
þeirra sýna sitt maktar veldi á þeim, 43. en þetta
skal ekki svo vera med ydur; því hvörr ydar, sem
mestur vill vera, hann sé hinna þjónustu-madur;
44. og hvörr, sem vill vera ædstur ydar á med-
al, hann skal allra ydar þjón vera; 45. því
ekki kom Mannsins Sonur til þess ad láta þjóna
sér, heldur til þess ødrum ad þjóna og til ad
láta líf sitt sem lausnargjald fyrir marga.

46. Nú komu þeir til Jeríkó borgar. Þegar

V. 32 — 45, sbr. Matt. 20, 17 — 20. Lúk. 18, 31 — 34. 22, 24 — 26. V. 46 — 52, sbr. Matt. 20, 29 — 34. Lúk. 18, 35 — 43.

hann fór þadan, fylgdu honum Lærisveinar hans og mikill fjøldi fólks. Þá sat Bartímeus Timausson hinn blindi vid veginn og beiddist ølmusu; 47. þegar hann heyrdi, ad Jesús nadverski færi þar hjá, kalladi hann hátt og mælti: Jesú, nidji Davíds, miskuna þú mér! 48. Margir skipudu honum þá ad þegja, en hann kalladi þess hærra, og sagdi: nidji Davíds, miskuna þú mér! 49. Þá nam Jesús stadar og lét kalla á hann; þeir gjørdu svo og mæltu: vertú vongódur, stattú upp, hann kallar á þig. 50. Hann kastadi þá yfirhøfn sinni, stód á fætur og kom til Jesú. 51. Jesús mælti: hvad viltú ad eg gjøri vid þig? hinn blindi mælti: Meistari! þad, ad eg fái sjón mína. 52. Jesús mælti: far þú leidar þinnar, þín trú hefir hjálpad þér. Strax fékk hann aptur sjón sína, og fylgdi honum á ferdinni.

## 11. Kapítuli.

*Jesús rídur inn í Jerúsalem; formælir fíkju-trénu; hreinsar musterid, en vill ekki segja hvørja makt hann haft hafi til ad hreinsa þad.*

1. Þegar þeir vóru komnir í nánd vid Jerúsalem til Betfage og Betaníu vid vidsmjørs fjallid, þá sendi Jesús frá sér tvo af Lærisveinum sínum og mælti: 2. fari þid í þorpid, sem gagnvart ykkur er, og strax, sem þid komid þángad, munud þid finna fola bundinn, hvørjum enginn madur hefir ádur ridid, leysid hann og færid mér; 3. en skyldi nokkurr spyrja, því þér gjørid svo? þá segid: ad Herra ykkar þurfi hans vid, og muni brádum senda hann híngad aptur. 4. Þeir fóru leidar sinnar, og fundu folann bundinn fyrir dyrum úti á strætinu, og leystu hann; 5. þá spurdu nokkrir, sem vid vóru staddir: því þeir gjørdu þetta? 6. þeir svørudu eins og Jesús hafdi bodid þeim, og þá létu hinir þá fara. 7. Sídan færdu Lærisveinarnir Jesú folann, løgdu klædi sín á hann, en hann steig á bak; 8. en margir breiddu klædi sín á veginn, adrir hjuggu lim af trjánum, og strádu því á brautina; 9. en múgurinn, sem á undan fór og eptirfylgdi, hrópadi og sagdi: heill og blessan Guds sé med þeim, sem kémur í Drottins umbodi! 10. blessad veri hid apturkomna ríki fødurs vors Davíds! hjálpa þú sem býr á hædum! 11. Þegar hann kom inn í Jerúsalem, gékk hann strax uppí musterid, og þegar hann hafdi skodad þar allt, fór hann til Betaníu med þeim tólf undir kvøld.

12. Morguninn eptir, þá þeir fóru frá Betaníu, húngradi hann; 13. þá sá hann áleingdar eitt fíkju-tré, sem laufblødin voru vaxin á, þángad fór hann ad leita, hvørt hann ekki fyndi ávøxt á því; en þegar hann kom, fann hann ekkért nema blødin tóm, því þá var ekki fíkna tími; 14. hann sagdi þá vid tréd: njóti þá einginn ávaxtar af þér hédan í frá! þetta heyrdu Lærisveinar hans; 15. sídan fóru þeir til Jerúsalem, gékk þá Jesús inní musterid, og rak út þá, sem seldu þar og keyptu, og hratt um bordum þeirra, er skipti høfdu á peníngum, og stólum þeirra, er dúfur seldu, 16. og eingum leid hann ad bera (nokkurskonar) áhøld um musterid. 17. Sídan kéndi hann og sagdi: er ekki skrifad í Ritníngunni: mitt hús skal vera bæna-hús fyrir allar þjódir? en þér hafid gjørt úr því ræníngja bæli. 18. Þegar þeir skriftlærdu og ædstu prestar heyrdu þetta, leitudust þeir vid, hvørninn þeir gætu rádid hann af døgum, því þeim stód ótti af honum, vegna þess allt fólkid dádist mjøg ad hans kénníngu. 19. Þegar kvøld var komid, fór hann utan borgar. 20. Um morguninn eptir fóru þeir hjá fíkju-trénu, og sáu ad þad var visnad allt frá rótum. 21. Þá minntist

V. 1 — 24. sbr. Matt. 21, 1 — 22. Lúk. 19, 29 — 48. Jóh. 12, 12 — 14. V. 9. sbr. Sálm. 118, 25 — 26. V. 12 — 14, sbr. Matt. 21, 19. 20. V. 15 — 17, sbr. Jóh. 2, 13 — 17.

Pétur þess, sem Jesús hafdi sagt og mælti: skodadu, Meistari! fíkju-tréd, hvørju þú formæltir, er visnad. 22. Þá sagdi Jesús: treystid þér Gudi! 23. trúid mér, ef einhvør segdi vid fjall þetta: lyptu þér upp og kastadu þér í hafid, og efadi ekki í hjarta sínu, heldur trydi, ad þad mundi verda, eins og hann segdi, þá mundi þad ské. 24. Þar fyrir segi eg ydur: um hvad helst þér bidjid Gud, þá trúid ad þér munud þad ødlast, og þá munud þér fá þad. 25. Nær þér bidjid, þá fyrirgéfid, ef ydur þykir nokkud vid einhvørn, svo ad Fadir ydar á himnum fyrirgéfi ydur einninn ydar afbrot; 26. en ef þér ekki fyrirgéfid ødrum, mun Fadir ydar himneskur ekki heldur forláta ydur ydar afbrot.

27. Nú komu þeir aptur til Jerúsalem, og þegar hann var staddur í musterinu, komu til hans þeir ædstu Prestar, Skriftlærdir og Øldúngarnir, 28. og spurdu: med hvada rétti hann gjørdi þetta, eda hvørr honum hefdi géfid vald til þess? 29. Jesús mælti: eg vil og spyrja ydur eins; ef þér svarid mér til þess, mun eg og segja ydur, í hvørs umbodi eg gjøri þetta. 30. Hvørt hafdi Jóhannes vald ad skíra frá Gudi edur mønnum? svarid mér til þess! 31. þeir hugleiddu þetta med sér og hugsudu svo: ef vér segjum hann hafi haft þetta vald frá Gudi, mun hann spyrja: því vér ekki høfum trúad honum; 32. en ef vér segjum hann hafa haft þad frá mønnum, þá høfum vér orsøk til ad hrædast fólkid; því allir héldu hann fyrir sannan Spámann. 33. Þeir svørudu honum því og kvádust ekki vita þad. Jesús mælti: þá segi eg ydur heldur ekki, í hvørs umbodi eg gjøri þetta.

## 12. Kapítuli.

*Jesús talar um víngard; um skatt; um upprisuna; um løgmálid; um sjálfan sig; um gjøf ekkjunnar.*

1. Þá sagdi hann þeim dæmisøgu þessa: madur nokkur plantadi víngard, og hlód gard um hann; þar gjørdi hann vínpressu og bygdi þar turn; sídan leigdi hann víngardinn víngardsmønnum, og fór úr landi. 2. Þegar tími var til, sendi hann þjón sinn til víngardsmannanna, til ad veita þeim hluta ávaxtarins móttøku, er hann hafdi áskilid sér; 3. hann tóku þeir høndum, børdu hann, og sendu aptur tómhendtan. 4. Þá sendi húsbóndinn annan þjón til þeirra; þennan børdu þeir grjóti, særdu hann á høfdi, løgdu honum hádúngar til, og létu hann svo fara. 5. Enn þá sendi hann þann þridja þjón til þeirra; hann myrdtu þeir. Marga fleiri sendi hann, en suma af þeim børdu þeir, en suma drápu þeir. 6. En þá átti hann eptir einn einka son, hvørjum hann unni mjøg; þenna sendi hann seinast til þeirra, og sagdi þeir mundu þó bera virdíngu fyrir syni sínum; 7. en víngards-mennirnir tóku rád sín saman, og mæltu sín á milli: þessi er sá, sem erfa skal víngardinn, tøkum hann af lífi, svo verdur arfurinn vor. 8. Sídan tóku þeir hann høndum, myrdtu hann, og køstudu honum út fyrir víngardinn. 9. Hvad ætli þér, ad eigandi víngardsins muni gjøra? hann mun koma og fyrifara víngards-mønnunum, og leigja víngard sinn ødrum. 10. Hafid þér ekki lesid þad: sá steinn, er húsasmidir útskúfudu, hann er nú hornsteinn ordinn, 11. af Gudi er hann þar til kjørinn, þótt oss undarlegt þyki. 12. Þá vildu þeir leggja hendur á hann, en þordu þad ekki fyrir alþýdunni, því þeir skildu, ad hann

---

V. 25—26, sbr. Matt. 6, 14. ff. V. 27—33, sbr. Matt. 21, 23—27. Lúk. 20, 1—8. V. 1—12, sbr. Matt. 21, 33—42. Lúk. 20, 9—19. V. 10—11, sbr. Sálm. 118, 22. 23. V. 13—17. Matt. 22, 15—22. Lúk. 20, 20—26.

sagdi dæmisøgu þessa uppá þá; þeir yfirgáfu
hann því og gengu á burt.

13. Eptir þetta sendu þeir til hans nokkra
af Faríseum og mønnum Heródesar er leitast
skyldu vid ad fá á ordum hans. 14. Þeir
spurdu hann á þessa leid: Meistari! oss er
kunnugt ad þú ert sannordur, þú mælir ekki,
sem hvørr vill heyra, og fer ekki ad mannvird-
íngum, heldur kénnir þú Guds lærdóm rétti-
lega: hvørt egum vér ad lúka Keisaranum skatt
edur ekki? hvørt skulum vér gjalda hann edur
ekki? 15. Nú er Jesús skildi fláttskap þeirra,
mælti hann: því freistid þér mín? færid mér
peníнginn, ad eg sjái hann; þeir gjørdu svo.
16. Jesús spurdi þá: hvørs ad væri mynd sú
og yfirskrift, er á honum stædi? þeir søgdu:
ad þad væri Keisarans; 17. þá sagdi Jesús:
gjaldid þá Keisaranum, hvad Keisarans er, og
Gudi, hvad Guds er; og þá furdadi á honum.
18. Nú komu Sadúsear til hans, sem neita
því, ad daudir menn upprísi. Þeir løgdu fyr-
ir hann þessa spurníngu: 19. Meistari! —
søgdu þeir — Mósis hefir bodid oss: ad ef
nokkurr dæi barnlaus frá konu sinni, þá skyldi
bródir hans fá konu hans, til þess ad halda
vid ættlegg bródur síns; 20. en med oss voru
sjø brædur, hinn fyrsti þeirra kvongadist og dó
barnlaus; 21. þá gékk annar bródir hans til ad
eiga konu hans; hann dó og barnlaus; 22.
sídan hinn þridji, og allir sjø eignudust hana,
og deydu barnlausir, en seinast allra deydi kon-
an. 23. Hvørs þeirra egin-kona skal hún nú
verda í upprisunni, þá þeir upprísa? því þeir
høfdu átt hana allir sjø. 24. Jesús mælti: hvørt
villist þér ekki þess vegna, ad þér hvørki skiljid
Ritnínguna, né mátt Guds? 25. því þegar menn
upprísa, munu hvørki þeir kvænast, né þær
giptast, heldur munu þeir verda einsog Englar
Guds á himnum. 26. En hvad upprisu fram-
lidinna vidvíkur, hafid þér ekki lesid í Mósis
bók í frásøgunni um runninn, hvad Gud sagdi
vid hann, og svo hljódar: „Eg er Gud Ab-
rahams, Gud Isaks og Gud Jakobs.“ 27.
Gud er ekki Gud daudra, heldur lifendra; er
því villa ydar stór. 28. Þá kom til hans einn
af þeim skriftlærdu, er heyrt hafdi á samtal
þeirra, og hvørsu vel ad Jesús hafdi svarad
þeim; hann spurdi á þessa leid: hvørt er þad
allra ædsta bod? 29. Jesús mælti: þad all-
ra ædsta bod er þetta: heyr þú, Israel! Drott-
inn vor Gud er sá einasti Gud, 30. þar fyr-
ir átt þú ad elska Drottinn Gud þinn af øllu
þínu hjarta, af allri þinni sálu, af øllum huga
og øllum krøptum. 31. Þetta er þad ædsta
bod, og þessu líkt er hitt: elska skaltu náúnga
þinn einsog sjálfan þig; ekkért bod er ædra,
en þessi. 32. Þá sagdi hinn skriftlærdi: á-
gjætlega svaradir þú, og satt er þad, ad ekki
er Gud nema einn, og enginn utan hann; 33.
og ad elska Gud af øllu hjarta, øllum huga,
allri sálu og øllum krøptum, og náúngann
einsog sjálfan sig, er meir áridandi, en øll bod
um brenni-fórnir og offur. 34. Þegar Jesús
heyrdi þetta skynsamlega andsvar hans, mælti
hann: þú ert ekki lángt frá Guds ríki; og eng-
inn þordi ad þreyta spurníngar vid hann
framar.

35. Og er Jesús var ad kénna í musterinu
sagdi hann: því segja hinir Skriftlærdu, ad Krist-
ur sé Davíds sonur? 36. en Davíd segir þó
sjálfur fyrir heilagan Anda: „Drottinn sagdi
vid minn Drottinn: sit þú mér til hægri hand-
ar, þar til eg gjøri óvini þína ad skør fóta
þinna.“ 37. Hér kallar Davíd hann sjálfur

V. 18—34, sbr. Matt. 22, 23—40. Lúk. 20, 27—39. V. 18. Post. Gb. 23, 8. V. 19, 5 Mós. 25, 5. V. 26. 2 Mós. 3, 2—6. V. 29. sbr. 5 Mos. 6, 4. 5. 3 Mós. 19, 18. V. 31—34, sbr. Lúk. 10, 25—37. V. 35—37. Matt. 22, 41—46. Lúk. 20, 41—44. V. 36. Sálm. 110, 1.

Herra; hvørninn kann hann þá ad vera sonur
hans? og allur lýdurinn heyrdi hann fúslega.
38. Í kénníngu sinni sagdi hann þá til þeirra:
varid ydur vid þeim skriftlærdu, sem gjarna
brúka síd klædi; girnast, ad þeim sé heilsad á
manna-mótum, 39. sitji í fyrisæti í samkund-
um og séu efstir til bords í veitslum; 40. þeir
útsjúga hús ekkna, og þad undir yfirhylmíngu
lángra bæna; þeir munu og þess þýngra
straffi sæta.

41. Einhvørju sinni sat Jesús gégnt féhirdslu
musterisins, og sá, ad fjøldi fólks lagdi þar fé
í, og margir þeir, er ríkir vóru, løgdu mikid til;
42. þá kom þar ad ekkja nokkur fátæk, og lagdi
þar í tvo smá-penínga, sem eru hálfs skildíngs
virdi. 43. Þá kalladi Jesús til sín Lærisveina
sína, og sagdi þeim: trúid mér! þessi fátæka
ekkja hefir meira fé lagt í fjárhirdsluna, en allir
hinir; 44. því þeir gáfu allir af því, sem þeir
høfdu afgángs, en hún af fátækdóm sínum, al-
eigu sína, alla sína lífsbjørg.

## 13. Kapítuli.

*Jesús talar um eydileggíngu Jerúsalems borgar og um heims endirinn.*

1. Þegar hann gékk út úr musterinu, sagdi
einhvørr af Lærisveinum hans vid hann: skod-
adu, Meistari! hvad stórir þessir steinar eru, og
hvílík þessi byggíng! 2. Jesús mælti: þú undr-
ast þessar miklu byggíngar; þar mun ekki ept-
irskilinn verda steinn yfir steini ónidurrifinn. 3.
Nú sem hann sat á vidsmjørs-vidar fjallinu
gégnt musterinu, spurdu þeir Pétur, Jakob, Jó-
hannes og Andrés hann einslega hér um, 4.
og bádu hann ad segja sér nær þetta mundi ské,
og hvørt ad væri merkid, nær allt þetta skyldi
rætast. 5. Jesús tók þá svo til orda: varist ad
einginn leidi ydur í villu, 6. því margir munu
koma í mínu nafni, og segja sig vera Krist, og
þeir munu marga afvega leida. 7. En er þér
heyrid stríd og hersøgur, þá látid ekki hugfallast;
því þetta hlýtur ad ské; þó er þar fyrir ekki
endirinn kominn. 8. Ein þjódin mun reisa ó-
frid móti annari, og eitt ríki móti ødru; þá munu
í ýmsum stødum vera landskjálftar, hallæri og
flokkadrættir; þetta er byrjan hørmúnganna;
9. en verid þér þá varir um ydur, því þeir munu
hafa ydur á rádstefnur og í samkundur, þér mun-
ud húdstrýktir verda, og mín vegna færdir verda
fyrir Landshøfdíngja og Konúnga, svo þér einn-
inn fyrir þeim gétid borid vitni um mig; 10.
en ádur hlýtur minn lærdómur ad vera fluttur
øllum þjódum. 11. En nær þeir draga ydur
fyrir rétt og framselja ydur, þá verid ekki á-
hyggjufullir um hvad þér egid ad tala, né hugs-
id um þad fyrir fram, heldur talid þad, sem
ydur verdur inngéfid á þeirri sømu stundu; því
þér erud ekki þad, sem talid, heldur heilagur
andi. 12. Þá mun sá eini bródir framselja
hinn til dauda, og fadirinn barn sitt; børnin
munu hefja fjandskap mót foreldrum sínum, og
taka þá af lífi, 13. og mín vegna munu allir
ydur ad hatri hafa; en sá, sem stødugur stend-
ur til enda, hann mun hólpinn verda. 14.
En nær þér sjáid vidurstygd eydileggíngarinnar
(um hvørja Spámadurinn Daníel talar) standa
þar, er ekki skyldi (hann, sem les þar um, géfi
gaum ad því); þá flýi hvørr sá, sem er í Gyd-
íngalandi, til fjalla, 15. og hvørr, sem er á
húsþaki, varist hann ad fara ofan í húsid, edur
gánga inní þad, til ad taka nokkud þadan. 16.
Sá, sem er á akri, snúi hann ekki aptur til ad
taka klædi sín; 17. vesælar eru á þeim tím-
um konur þúngadar, og þær, er børn hafa á
brjósti; 18. en bidjid: ad ydar flótti verdi ekki
um vetur; 19. því á þeim tímum mun verda

V. 37—40. sbr. Matt. 23, 5—7. Lúk. 20, 45—47. V. 41—44, sbr. Lúk. 21, 1—4. V. 1. ff, sbr. Matt. 24, 1. ff Lúk. 21, 5. ff. V. 14. Dan. 9, 26. 27.

svo stór hørmúng, ad engin hefir slík verid frá
upphafi þeirra hluta, sem Gud skapadi, til þessa,
og ekki heldur mun verda; 20. og nema Gud
stytti þessa tíma, mundi enginn lífi halda; en
vegna hinna útvøldu, sem hann hefir útvalid,
mun hann stytta þá. 21. Ef einhvørr þá seg-
ir ydur: sjá! hér er Kristur, eda þar, þá trúid
ekki; 22. því upp munu rísa fals-kristar og fals-
spámenn, er gjøra munu tákn og stórmerki, til
ad afvegaleida, ef ské mætti, jafnvel Guds út-
valda. 23. En verid þér varir um ydur, og
minnist þess, ad eg sagda ydur allt þetta fyr-
ir. 24. A þessum tíma, nær þessi hørmúng
er á enda, mun sólin sortna og rúnglid missa
birtu sinnar; 25. þá munu stjørnurnar hrapa
af himni, og himnanna her skjálfa. 26. Þá
munu menn sjá Mannsins Son komanda í ský-
unum med miklu valdi og vegsemd; 27. hann
mun senda Engla sína til ad samansafna hans
útvøldu úr øllum áttum, frá einu heims-skauti
til hins. 28. Takid dæmi af þessu fíkju-tré:
nær greinir þess eru þvalar ordnar, og blødin
taka út ad springa, þá vitid þér, ad sumarid
er í nánd. 29. Eins skulud þér og vita, ad
nær þér sjáid þetta ské, þá er eydileggíngin fyr-
ir høndum. 30. Sannlega segi eg ydur! þessi
kynslód mun ekki undir lok lidin, ádur en allt
þetta kémur fram. 31. Himin og jørd munu
forgánga, en mín ord munu rætast. 32. En
þann dag edur stund veit enginn, ekki Englar á
himni og ekki Sonurinn, og enginn, nema Fad-
irinn einn. 33. Verid því varir um ydur!
vakid og bidjid, því þér vitid ekki, nær þessi tími
kémur. 34. Því er eins varid, og þá madur
nokkurr ferdast úr landi, og felur hús sitt og
eigur þjónustu-mønnum sínum á vald, og skip-
ar hvørjum sitt verk; en býdur dyraverdinum
ad vaka. 35. Eins verdid þér ad vaka, því þér
vitid ekki, nær húsbóndinn muni koma, hvørt
heldur ad aptni, um midnætti, um apturelding u,
edur ad morgni, 36. ad ekki komi hann, nær
þér minnst væntid, og finni ydur sofandi; 37.
hvad eg segi ydur, þad sé øllum sagt: vakid
þér!

## 14. Kapítuli.

Høfudprestarnir leitast vid ad fyrirkoma Jesú; kona nokkur smyr hann, Jesús innsetur Kvøldmáltídina, fyrirsegir Péturs hrøsun, Jesú Þjáníng í grasgardinum; svik Júdasar; Jesús handtekinn; Lærisveinarnir flýa, Jesús er leiddur til Høfudprestsins; hans medkénning fyrir honum; hann fordæmist, medhøndlast illa, Péturs hrøsun.

1. Tveimur døgum hér eptir var Páska-
hátíd, hátíd hinna ósýrdu brauda a); þá leitud-
ust þeir ædstu Prestar og Skriftlærdir vid,
hvørninn þeir gjætu fángad hann med svikum,
og rádid hann af døgum; 2. søgdu samt: ekki
á hátídinni, svo ekki rísi órói milli alþýdunnar.
3. Nú er hann var undir bordum í Beta-
nía í húsi Símonar líkþráa, kom þar kona
nokkur, sem hafdi smyrsla-fløsku úr alabastri,
fulla med dýrmæta, ómengada Nardus-olíu;
hún braut fløskuna og hellti olíunni yfir høf-
ud honum. 4. Þetta féll sumum illa í skap,
og søgdu: því er þessum smyrslum spillt? 5.
Þau hefdi mátt selja fyrir meir enn 300 pen-
ínga og gefa fátækum; og tóku þeir ad ásaka
hana hér fyrir. 6. Jesús mælti: látid hana
í fridi! því amist þér vid henni? vel gjørdi
hún til mín. 7. Fátæka hafid þér ætíd hjá
ydur, og kunnid ad gjøra þeim gott, nær þér
viljid, en mig hafid þér ekki ætíd hjá ydur. 8.
Hún gjørdi hvad í hennar valdi stód; hún hef-

V. 22. 5 Mós. 13. 2 Tessal. 2, 9—12. V. 24. Esa. 13, 9. 10. Esek. 32, 7. Jóel. 2, 10. 3, 15. Opb. 6, 6, 12—14. V. 26. Dan. 7, 13. V. 25. Himnanna her, þ. e. himintúnglin. V. 34—37, sbr. Matt. 24, 45—51. 25, 14. ff. V. 1—11, sbr. Matt. 26, 1—16. Lúk. 22, 1—6. Jóh. 12, 1—8. V. 1. a. 2 Mós. 12, 15.

ir fyrifram smurt líkama minn til greftrunar;
9. trúid mér! hvar helst í øllum heimi, sem
gledibodskapurinn verdur bodadur, mun þess og
gétid, sem hún gjørdi, henni til hróss.

10. Sídan fór Júdas frá Kariot, einn af
þeim tólf, til enna ædstu Presta, til þess hann
kjæmi honum med svikum á þeirra vald; 11.
vid þetta urdu þeir gladir, og hétu honum
fé, en hann leitadi, hvørninn hann á hentug-
astan hátt gjæti svikid Jesúm.

12. Á fyrsta hátídar degi hinna ósýrdu
brauda, á hvørjum Páskalambinu átti ad slátra,
spurdu Lærisveinar Jesú hann um: hvar hann
vildi þeir matreiddu honum páskalambid? 13.
Þá sendi hann tvo af þeim og sagdi: farid
þér í borgina, þar munud þér mæta manni,
sem ber vatns-krús, fylgid honum, 14. og
segid rádanda þess húss, sem hann geingur
inn í, ad Lærimeistarinn spyrji: hvar ad sé þad
herbergi, hvar hann géti neytt páskalambsins
med Lærisveinum sínum? 15. og mun hann
þá sýna ydur stóran loptsal med uppbúnum
bekkjum; búid þér þar oss til matar. 16.
Þeir fóru, sem þeim var bodid, komu í borg-
ina, fundu allt eins og hann hafdi sagt þeim,
og matbjuggu þar páskalambid. 17. Um
kvøldid kom hann sjálfur med þeim tólf. 18.
Þegar þeir voru komnir undir bord, og teknir
til matar, mælti Jesús: sannlega segi eg yd-
ur: einn af ydur, sem nú er ad mat med mér,
mun svíkja mig. 19. Vid þetta urdu þeir
hryggvir, og spurdu hann einn eptir annan,
20. hvørt hann meinti þetta til sín? hann
svaradi: þad er einn af þeim tólf, sem dýfir
med mér í sama fat; 21. Mannsins Sonur
mun ad vísu láta líf sitt, eins og spád er um
hann, en vei þeim, sem svíkur hann; betra
væri honum ad hann aldrei væri fæddur. 22.
Medan þeir enn þá voru undir bordum, tók
Jesús braudid, gjørdi Gudi þakkir, braut þad,
rétti ad þeim, og mælti: takid þér vid, þetta
er minn líkami. 23. Sídan tók hann bikarinn,
gjørdi Gudi þakkir, og fékk þeim hann, og
þeir drukku allir af honum; 24. þá sagdi hann
vid þá: þetta er mitt blód, blód hins nýja
sáttmála, sem fyrir marga verdur úthellt; 25.
eg segi ydur þad satt, ad hédan í frá mun eg
ekki af vínvidar ávexti drekka, til þess dags,
er eg drekk af annarskonar ávexti í Guds ríki.

26. Þegar þeir høfdu súngid lofsaung-
inn, fóru þeir til vidsmjørs fjallsins; 27. á
veginum mælti Jesús: í nótt munud þér allir
yfirgéfa mig, eins og sagt er í Ritníngunum:
„nær eg deydi hirdirinn, þá munu saudirnir
tvístrast"; 28. en eptir mína upprisu mun eg
verda kominn á undan ydur til Galíleu. 29.
Þá sagdi Pétur: þótt allir yfirgéfi þig, þá
skal eg samt aldrei yfirgéfa þig! 30. Jesús
mælti: trú þú mér! nú í nótt, ádur enn han-
inn hefir galad tvisvar, muntú þrisvar hafa
afneitad mér. 31. En hann kvad enn frekar ad,
og mælti: þótt eg ætti ad láta líf mitt med
þér, skyldi eg þó aldrei afneita þér; eins søgdu
allir Lærisveinarnir.

32. En er þeir komu í þann stad, er heitir
Getsemane, bad hann Lærisveina sína bída þar,
á medan hann væri á bæn. 33. Hann tók
þá med sér Pétur, Jakob og Jóhannes, og tók
ákaflega ad hryggjast og harmþrúnginn ad
verda. 34. Þá sagdi hann til þeirra: eg em
í daudans ángist; bídid hér og vakid. 35.
Þá gékk hann lítid lengra áfram, féll til jard-
ar og bad, ad þessi harma-stund mætti hjá
sér lída, ef þess væri kostur. 36. Fadir minn!

V. 13—25, sbr. Matt. 26, 16—29. Lúk. 22, 7—18. V. 18—21, sbr. Jóh. 13, 21—27. 1 Kor. 11, 23—25. V. 18, sbr. Sálm. 41, 10. V. 25. sbr. Lúk. 22, 29. 30. V. 26—42. sbr. Matt. 26, 30—46. Lúk. 22, 39—46. Jóh. 18, 1. V. 27. Sakk. 13, 7.

sagdi hann, alls ertú máttugur, lát þenna bik=
ar víkja frá mér; þó ekki sem eg vil, heldur sem
þú vilt. 37. Þá hann kom aptur til þeirra,
fann hann þá sofandi; þá sagdi hann til Pét=
urs: Símon! sefur þú? gatstú ekki vakad um
eina stund? 38. Vakid og bidjid, ad þér
fallid ekki í freistni; andinn er ad sønnu reidu=
búinn, en holdid er veikt. 39. Í ødru sinni
fór hann burtu, og gjørdi bæn sína og taladi
enum sømu ordum. 40. Og þá er hann kom
aptur, fann hann þá aptur sofandi, og voru
þeir svo yfirkomnir af svefnþúnga, ad þeir ekki
vissu, hvørju þeir svørudu honum. 41. Þrid=
ja sinn kom hann til þeirra, og sagdi: sofid
nú þad eptir er, og hvílist! þad er nóg — nú
er tíminn kominn; sjá! Mannsins Sonur mun
framseldur verda á vald vondum mønnum.
42. Standid upp, førum hédan; sá er í nánd,
er mig svíkur. 43. Jafnskjótt, er hann var
þetta ad tala, kom Júdas, er var einn af þeim
tólf Lærisveinum, og med honum fjøldi manna,
búnir sverdum og bareflum, sendir frá høfud=
prestunum og þeim skriftlærdu og Øldúngun=
um. 44. Svikarinn hafdi sagt þeim þetta til
marks: sá, sem eg kyssi, hann er Jesús;
handtakid hann og leidid á burt vareygdarlega.
45. Og er hann kom, gékk hann þegar ad
Jesú, og segir: Meistari, Meistari; og minnt=
ist vid hann. 46. En hinir løgdu hendur á
hann og tóku hann. 47. En einn af þeim
sem hjá stódu, brá sverdi og hjó á eyra þjón=
ustu=manni hins ædsta prests, svo aftók.
48. Þá tók Jesús til orda og mælti til þeirra:
þér erud útfarnir med sverdum og bareflum til
ad handtaka mig, sem væri eg ránsmadur.
49. Dagsdaglega kénndi eg í musterinu hjá
ydur, og handtókud þér mig samt ekki; en
þetta er skéd svo spádómarnir rættust. 50.
Þá yfirgáfu hann allir Lærisveinarnir, og
flýdu. 51. Madur nokkur úngur fylgdist med
honum, hann hafdi lín eitt klæda á berum sér;
52. og er flokks mennirnir vildu handtaka
hann, kastadi hann línklædinu, og flýdi nakinn
í burtu frá þeim.

53. Sídan leiddu þeir Jesúm til høfud-
prestsins, og þángad søfnudust allir hinir ædstu
prestar og Øldúngarnir og hinir skriftlærdu.
54. Pétur fylgdi honum áleingdar, allt inn í
gard høfudprestsins, settist þar hjá þjónustu=
mønnunum, og ornadi sér vid eldinn. 55. En
høfudprestarnir og allt þad mikla rád leitadi
vitna gégn Jesú, ad þeir kynnu ad dæma hann
til dauda, en fundu ekkért saknæmt um hann;
56. því þó margir bæru ljúgvitni gégn hon=
um, urdu þó vitnisburdir þeirra ekki samhljóda.
57. Nokkrir stódu upp og báru þad ljúgvitni:
58. vér heyrdum hann segja: eg skal brjóta
nidur þetta musteri, er med høndum er gjørt,
og innan þriggja daga byggja upp annad
musteri, þad ekki er med høndum gjørt. 59.
En ekki heldur vard vitnisburdur þeirra sam=
hljóda í þessu. 60. Þá gékk høfud=prestur=
inn fram og spurdi Jesúm: svarar þú engu?
hvílík stórmæli bera þessir á hendur þér? 61.
en hann þagdi og svaradi engu ordi. Høf=
ud=presturinn spurdi hann þá enn aptur:
ertú Kristur Sonur hins blessada. 62. Jes=
ús svaradi: eg em hann; og þér munud sjá
Mannsins Son sitjanda til hægri handar
þeim Alvalda og komanda í skýum himins. 63.
Þá reif høfudpresturinn klædi sín og mælti:
hvad þurfum vér nú framar vitna vid? 64.
Þér heyrdud hans gudløstun, hvad líst ydur?
en þeir kvádu hann allir dauda sekan. 65.

V. 43 — 52, sbr. Matt. 26, 47 — 56. Lúk. 22, 47 — 53. Jóh. 18, 3 — 11. V. 53 — 65, sbr. Matt. 26, 47 — 58. Lúk. 22, 54. 63 — 71. Jóh. 18, 12 — 16. 19 — 23. V. 58. sbr. Jóh. 2, 19 — 21. V. 62. Dan. 7, 13. V. 63. 3 Mós. 10, 6.

Þá hræktu sumir á hann, huldu hans ásjónu, slóu hann med knefum og søgdu: spádu nú! líka slóu þjónarnir hann knefa-høggum.

66. Medan Pétur var nidri í forgardinum, kom ein af þernum Høfud-prestsins, 67. og þá hún sá, hvar Pétur var ad orna sér, leit hún vid honum, og mælti: þú munt vera einn af Lærisveinum Jesú nadverska? 68. En hann bar á móti því, og sagdi: eg veit ekki og skil ekki, hvad þú segir. Gékk hann þá út í forgardinn, og þá gól haninn. 69. Þernan sá hann þá aptur, og sagdi vid þá, sem hjá stódu: þessi er einn af þeim; en hann neitadi aptur. 70. Skømmu sídar søgdu þeir, er þar vóru, vid Pétur: víst ertú einn af þeim; því málfæri þitt er því líkast, sem þú værir Galíleari. 71. Þá tók hann ad sverja og sárt vid leggja, ad ekki bæri hann kénnsl á þenna mann, er þeir tøludu um. 72. Þá gól haninn annad sinn. Þá minntist Pétur þess, er Jesús hafdi sagt vid hann, ad ádur enn haninn galadi tvisvar, mundi hann afneita sér þrisvar; flýtti hann sér þá út, og grét.

## 15. Kapítuli.

Jesús er áklagadur, dæmdur til dauda og krossfestur; deyr og er greftradur.

1. Strax í døgun gjørdu þeir rád sín Høfud-prestarnir, Øldúngarnir og hinir skriftlærdu og allt Rádid, bundu Jesúm, færdu hann burt og seldu Pílatusi í hendur. 2. Pílatus spurdi hann: ertú Konúngur Gydínga? hann svaradi: svo er, sem þú segir. 3. Høfud-prestarnir báru margar sakir á hendur honum. 4. Pílatus spurdi hann þá aptur og sagdi: svarar þú engu? sjá þú, hve margar sakir þeir bera uppá þig! 5. En Jesús svaradi engu ordi framar, svo ad Pílatus undradist. 6. En á hátídinni var Pílatus vanur ad láta þeim lausan bandíngja þann einn, er þeir sjálfir æsktu sér; 7. en þar var einn, er nefndur var Barabbas, er í bøndum var hafdur ásamt med ødrum óaldar mønnum, sem í upphlaupi nokkru høfdu víg vegid. 8. En er lýdurinn tók til ad kalla upp, og heimta, ad hann gjørdi, sem hann var vanur, 9. þá tók Pílatus til orda og sagdi: viljid þér, ad eg géfi ydur lausan Gydínga Konúnginn? 10. því hann vissi ad Høfudprestarnir høfdu fyrir øfundar sakir framselt Jesúm. 11. En Høfud-prestarnir æstu upp múginn til ad bidja: ad hann heldur gæfi þeim Barabbam lausan. 12. Þá sagdi Pílatus aptur til þeirra: hvad viljid þér þá, ad eg gjøri vid Gydínga Konúnginn, er þér svo nefnid? 13. Þeir kølludu aptur: krossfestú hann. 14. Pílatus spurdi: hvad hefir hann þá til saka gjørt? en þeir hrópudu þess ákafar: krossfestú hann! 15. Nú, med því ad Pílatus vildi gjøra eptir vild lýdsins, þá gaf hann þeim Barabbas lausan, en lét húdstrýkja Jesúm, og fékk hann svo (strídsmønnunum) í hendur til krossfestíngar. 16. Þá leiddu strídsmennirnir hann inn í høllina, þad er, inn í hús Landstjórnarans, og stefndu þángad øllum flokkinum; 17. þeir færdu hann í purpura fat, og settu á høfud honum kórónu, fléttada af þyrnum, 18. kvøddu hann og søgdu: heill vertú Konúngur Gydínga! 19. slóu reyr-sprota um høfud honum, hræktu á hann, knéféllu og veittu honum lotníngu. 20. En er þeir høfdu spottad hann, færdu þeir hann úr purpura kápunni, og í hans egin klædi.

21. En er þeir leiddu hann út, til ad krossfesta hann, gékk þar framhjá madur nokkurr, er Símon hét, fadir þeirra Alexanders og Rúffusar, hann kom utan af landsbygdinni; þenna mann neyddu þeir til ad bera kross hans. 22. Sídan færdu þeir Jesúm til þess stadar, er heitir Golgata, þad þýdir Hausaskélja-stadur; 23.

V. 66—72, sbr. Matt. 26, 69—72. Lúk. 22, 55—62. Jóh. 18, 15—18. 24—27. V. 1—20, sbr. Matt. 27, 1. 2. 11—31. Lúk. 23, 1—25. Jóh. 18, 28—40. 19, 1—16.

þar budu þeir honum vín ad drekka myrrublandad, en hann þádi þad ekki. 24. En er þeir høfdu krossfest hann, skiptu þeir klædum hans milli sín, og køstudu hlutum um, hvad hvørr skyldi eignast. 25. Þad var um þridju stund ad þeir krossfestu hann. 26. Uppi yfir honum var ritud daudasøk hans, þanninn ordud: Konúngur Gydínga. 27. Svo rænίngja krossfestu þeir med honum, annan til hægri, hinn til vinstri handar honum; 28. rættist svo þad, er Ritníngin segir: „med íllvirkjum er hann talinn.“ 29. Þeir, sem framhjá gengu, íllmæltu honum, skóku høfud sín og søgdu: svei, þad ertú, sem ætladir ad nidurbrjóta musterid, og byggja þad upp aptur á þremur døgum! 30. bjarga nú sjálfum þér, og stíg nidur af krossinum! 31. sømuleidis hæddu høfud-prestarnir hann sín á milli, ásamt þeim skriftlærdu og søgdu: ødrum hjálpadi hann, sjálfum sér getur hann ekki bjargad. 32. Stígi nú Gydínga Konúngurinn Kristur ofan af krossinum, svo vér sjáum, og þá skulum vér trúa honum. Líka illmæltu honum þeir, er med honum voru krossfestir. 33. En um sjøttu stundu gjørdi myrkur yfir allt land, allt til ennar níundu stundar. 34. En um níundu stundu kalladi Jesús hárri røddu og sagdi: Elói, Elói, lamma Sabachthani! þad þýdir: Gud minn! Gud minn! því hefir þú yfirgéfid mig? 35. En er nokkrir af þeim, sem hjá stódu, heyrdu þad, søgdu þeir: sjá! hann kallar á Elías. 36. Hljóp þá einn til, fyllti njardarvøtt med súrt vín, stakk honum á reyrstaf, og gaf honum ad drekka, og mælti: lofid mér ad! vitum til, hvørt Elías kémur ad taka hann ofan. 37. En Jesús kalladi upp hástøfum, og gaf upp andann; 38. og þá rifnadi musteris tjaldid sundur í tvennt, frá ofanverdu og allt nidur í gégn. 39. En er hundrads-høfdínginn, sem stód gégnt honum, sá ad hann kalladi svo hátt, er hann létst, þá sagdi hann: sannarlega hefir þessi madur verid Sonur Guds. 40. Konur nokkrar, er stódu fráleingdar, horfdu og á þetta; medal þeirra var María frá Magdølum, og María módir Jakobs yngra og Jósesar, og Salóme. 41. Þessar høfdu verid í fylgd med honum, þegar hann var í Galíleu og þjónad honum; þar voru og margar adrar konur, er farid høfdu med honum upp til Jerúsalem.

42. En er kvøld var komid (þad var adfángadags kvøldid fyrir hvíldar-daginn), 43. þá kom Jósep af Arímatea, gøfugur rádherra, hvørr og líka vænti eptir Guds ríki; hann dirfdist ad fara inn til Pílatusar og bidja hann um líkama Jesú. 44. En Pílatus furdadi sig á, ad hann skyldi vera þegar látinn, 45. og lét því kalla hundrads-høfdíngjann fyri sig og spurdi hann, hvørt hann væri fyrir laungu andadur? Og er hann var þess víss af hundrads-høfdíngjannm, gaf hann Jósep líkamann. 46. Keypti hann þá lín, tók líkid ofan, og sveipadi þad í líninu, og lagdi þad í grafhelli, er høggvinn var út í klett, velti sídan steini fyrir hellis-munnann. 47. En þær María frá Magdølum og María módir Jósesar horfdu á, hvar líkid var lagt.

## 16. Kapítulí.

*Jesú upprisa og himnafør.*

1. Þá er hvíldardagurinn var lidinn, keyptu þær María frá Magdølum og María Jakobs módir smyrsl til ad smyrja med líkid. 2. Og mjøg árla hinn fyrsta dag vikunnar fóru þær

---

V. 24. Sálm. 22, 19. V. 28. Esa. 53, 12. V. 21 — 41, sbr. Matt. 27, 32 — 56. Lúk. 23, 26 — 49. Jóh. 19, 17 — 37. V. 34. Sálm. 22, 2. V. 42 — 47, sbr. Matt. 27, 57 — 61. Lúk. 23, 50 — 56. Jóh. 19, 38 — 42. V. 1 — 8, sbr. Matt. 28, 1 — 10. Lúk. 24, 1 — 12. Jóh. 20.

til graf-hellisins; þad var um sólar uppkomu. 3. Þær sögdu þá hvør vid adra: hvørr mun velta fyrir oss steininum af hellis-munnanum? 4. En er þær litu til, sáu þær, ad steinninn var fráveltur, og var þad mikid bjarg. 5. Gengu þær þá inn í hellirinn, og sáu, hvar úngur madur sat hægrameginn, skrýddur hvítum drag-kyrtli, og hnykti þeim mjøg vid. 6. En hann sagdi til þeirra: hrædist eigi! þér leitid ad Jesú nadverska, hinum krossfesta; hann er upprisinn og er ekki hér. Þarna er stadurinn, hvar hann var lagdur. 7. Farid heldur og segid Lærisveinum hans og Pétri, ad hann fari á undan þeim til Galíleu; þar munud þér sjá hann, einsog hann sagdi ydur. 8. Konurnar fóru þá út og flýdu frá grøfinni, því ótti og ofbod vóru yfir þær komin, og engum søgdu þær frá neinu, því þær voru hræddar.

9. En er Jesús var upprisinn, lét hann Maríu frá Magdølum, frá hvørri hann hafdi útrekid siø djøfla, sjá sig fyrst, snemma morguns hinn fyrsta dag vikunnar. 10. Hún fór og kunngjørdi þetta þeim, er med honum høfdu verid, sem voru harmandi og grátandi; 11. en þó þeir heyrdu, ad hann væri lífs, og ad María hefdi sjed hann, trúdu þeir þó ekki. 12. En eptir þetta birtist hann tveimur þeirra, þá þeir voru á gángi, og ætludu út á lands-bygdina; 13. þessir fóru og søgdu þad hinum ødrum, en þeir vildu heldur ekki trúa þeim. 14. Sídast lét hann þá ellefu sjá sig, þá þeir sátu undir bordum, og bar hann þeim þá á brýn trúarleysi þeirra og þverúd, ad þeir ekki hefdu viljad trúa þeim, er sjed høfdu hann upprisinn. 15. Hann sagdi þá til þeirra: farid út um allan heim, og kunngjørid gledi-bodskapinn øllum þjódum. 16. Sá, sem trúir og verdur skírdur, mun hólpinn verda, en sá, sem ekki vill trúa, mun fordæmast. 17. En þessar dásemdir skulu fylgja þeim, er trúa: þeir skulu í mínu nafni djøfla útreka, tala nýum túngum, taka upp høggorma ad ósekju; 18. ef þeir drekka nokkud banvænt, þá skal þad þeim ekki granda; yfir sjúka skulu þeir hendur leggja og mun þeim þá batna. 19. Nú er Drottinn hafdi endad tal sitt vid þá, vard hann uppnuminn til himins, og settist til Guds hægri handar. 20. En þeir fóru út og kunngjørdu lærdóminn allstadar, og var kraptur Drottins med þeim, og stadfesti lærdóminn med táknum, er honum fylgdu.

B. 12, sbr. Lúk. 24, 13. ff.

# Lúkasar Gudspjall.

## 1. Kapítuli.

Formálinn; Gabríel bodar fædíngu Jóhannesar, og Guds Sonar. María heimsækir Elísabet og vegsamar Gud; Jóhannes fædist, Sakarías spáir, og Jóhannes vex upp.

1. Eptir því ad margir hafa tekid sér fyrir hendur ad færa þá hluti í frásøgur, er oss eru fullkunnir, 2. med því þeir menn hafa sagt oss þá, er frá øndverdu sjálfir voru sjónarvottar og flytjendur þessa lærdóms; 3. þá hefir mér einninn sýnst, eptir ad eg hafdi ransakad øll þessi efni kostgæfilega frá rótum, ad skrásetja þau fyrir þig, minn kjæri Theóphílus! 4. svo þú hefdir óbrigdula vissu um, ad þad sé sannleikur, er þér hefir kénnt verid.

5. Þegar Heródes Konúngur rédi fyrir Gyd-

íngalandi, var þar Prestur nokkurr, er Sakar-
ías hét, af Presta flokki Abíasar a); kona hans
var komin af ætt Arons; hún hét Elísabet;
6. þau voru bædi rádvønd, og breyttu í øllu
óadfinnanlega eptir bodum og skipunum Guds.
7. Þau áttu ekki barna, því Elísabet var ó-
birja, og bædi voru þau hnígin á efra aldur.
8. Einhvørju sinni bar svo til, þá rødin kom
til þess Presta flokks, sem hann var í, og hann
skyldi gégna prestsverkum í musterinu, 9. ad
honum hlotnadist eptir venju prestaþjónustunn-
ar, ad veifa reykélsinu; gékk hann þá inn í must-
erid, 10. en allt fólkid var fyrir utan á bæn
á medan. 11. Þá birtist honum Engill Guds,
sem stód hægramegin vid reykélsis altarid; 12.
og er Sakarías sá hann, vard hann felmturs-
fullur, og ótti féll yfir hann. 13. Þá mælti
Engillinn: vertú óhræddur, Sakarías! því bæn
þín er heyrd. Kona þín Elísabet mun fæda
þér son, þann skaltú Jóhannes nefna; 14. hann
mun verda þér til fagnadar og gledi, og marg-
ir muuu gledjast yfir hans fædíngu, 15. því
hann mun verda mikill Guds madur. Hann
mun hvørki drekka vín né annan áfengan drykk,
og allt í frá fædíngu hans mun hann fyltur
verda heiløgum Anda, 16. og mørgum Ísraels-
manna mun hann snúa til Guds Drottins þeirra.
17. Hann mun gánga fyrir hans augliti í
Elíasar anda og krapti, svo ad hann snúi hjørt-
um fedranna til barnanna, og komi inn hugarfari
rádvandra hjá hinum þverbrotnu, og tilreidi svo
Drottni vel undirbúinn lýd. 18. Þá spurdi Sa-
karías Engilinn: hvad hann skyldi hafa til marks
um þetta; því eg er — sagdi hann — mad-
ur gamall, og kona mín er hnígin á efra ald-
ur? 19. Engillinn mælti: eg er Gabríel, sem
stend frammi fyrir Gudi, sendur ad flytja þér
þessi gledilegu tídindi; 20. en þú munt mál-
laus verda og ekki fá talad, uns þetta kémur
fram, vegna þess ad þú efadir ord mín, sem
þó munu rætast á sínum tíma. 21. Á medan
beid fólkid eptir Sakaríasi, og undradist, ad hann
dvaldist svo lengi í musterinu. 22. En er hann
kom út, mátti hann ekki mæla; þóktist þá fólk-
id vita, ad nokkud mundi hafa borid fyrir hann,
hvad hann og lét þá skilja í bendíngum, því
hann var mállaus. 23. En er hans tída-þjón-
usta var á enda, fór hann heim til sín. 24.
Eptir þetta vard Elísabet kona hans med barni,
og héldt hún sig heima í fimm mánudi, 25.
og sagdi: þannig hefir Drottinn breytt vid
mig, þá hann vitjadi mín til ad burttaka þad,
er menn løgdu mér til smánar.

26. En á sjøtta mánudi sendi Gud Gabríel
Engil í þá borg í Galíleu, sem heitir Nasaret,
27. til þeirrar meyar, er María nefndist; hún
var heitkona þess manns, sem Jósep hét,
af ætt Davíds. 28. Engillinn kom inn til henn-
ar og kvaddi hana þessum ordum: heil vert þú,
sem nýtur nádar Guds og hylli, þú hin sælasta
allra kvenna! 29. En hún vard hrædd, er hún
sá hann og heyrdi ord hans, og tók ad hug-
leida, hvílík þessi kvedja væri. 30. Þá mælti
engillinn: hrædstú ekki, María, Gud er þér nád-
ugur; 31. þú munt barns-hafandi verda og
fæda sveinbarn; hann skaltú láta heita Jesús;
32. hann mun mikill verda og kallast Sonur
hins Hædsta; Drottinn mun géfa honum ríki
Davíds forfødur síns, 33. og hann mun ráda
æfinlega yfir ætt Jakobs, og á hans ríki mun
einginn endir verda. 34. Þá sagdi María vid
engilinn: hvørninn má þetta ské, þar eg ekki
hefi haft samrædi vid nokkurn karlmann? 35.
Engillinn mælti: heilagur Andi mun koma yfir
þig, og kraptur hins ædsta mun yfirskyggja þig,
og þar fyrir mun þad heilaga, sem af þér fæd-

V. 5. a. Presta flokkur Abíasar, 1 Kron. 24, 10. V. 9. sbr. 2 Mós. 36, 7. 40, 26. 27. V. 15, sjá 4 Mós. 6, 3. V. 17, sjá Malak. 4, 6. V. 35. Matt. 1, 18. 20.

ist, kallast Sonur Guds. 36. Þad skaltú og vita, ad Elísabet frændkona þín er ordin hafandi ad sveinbarni í elli sinni, og hún, sem álitin var óbirja er komin nú allt á sjötta mánud; 37. því Gudi er enginn hlutur um megn. 38. Þá mælti María: sjá, eg em ambátt Drottins! rætist á mér ord þín! ad svo búnu fór engillinn í burtu.

39. Litlu sídar fór María skyndilega til fjallbygda, til borgar nokkurrar í Júdeu, 40. kom í hús Sakaríasar, og heilsadi Elísabetu. 41. En svo brá Elísabetu vid kvedju þessa, ad barnid hrærdist í lífi hennar, og ad hún uppfylltist heilögum anda, 42. kalladi hátt og mælti: blessud ertú medal kvenna, og blessad er þad fóstur er þú gengur med! 43. hvadan kémur mér þad, ad Módir Drottins míns kémur til mín? 44. því strax, sem kvedja þín kom mér til eyrna, hrærdist barnid af gledi í lífi mér; 45. sæl ertú, ad þú ekki barst brigd á fyrirheiti Guds, sem rætast mun á sínum tíma. 46. Þá sagdi María: önd mín lofar Drottinn, 47. og minn andi gledur sig í Gudi Frelsara mínum. 48. Í nád sinni leit hann til audvirdilegrar ambáttar sinnar, þess vegna munu mig allar aldir sæla prísa, 49. því hinn voldugi hefir breytt dásamlega vid mig; 50. hans nafn er heilagt, og hans miskunsemi varir um aldur og æfi vid þá, sem hann óttast. 51. Hans armleggur hefir þrek unnid, þeim dramblátu hefir hann stökkt á dreif; 52. Konúngunum hefir hann hrundid úr hásæti, en hafid þá audvirdilegu, 53. húngrudum hefir hann veitt alls nægtir, en ríka hefir hann látid snauda frá sér fara. 54. Hann hefir ad sér tekid sitt barn, Ísraels lýd, med því ad hann hefir minnst miskunar þeirrar, 55. er hann hét ad veita fedrum vorum, Abraham og nidjum hans, æfinlega. 56. Þar dvaldist María hér um þrjá mánudi, sídan fór hún heim til sín.

57. Nú er tími var kominn ad Elísabet skyldi verda léttari, ól hún sveinbarn. 58. En er nágrannar hennar og ættmenn heyrdu, hversu mikla velgjörd Gud hafdi henni audsýnt, samfögnudu þeir henni. 59. Sídan komu þeir á áttunda degi ad umskéra sveininn, og vildu kalla hann Sakarías eptir födur sínum; 60. en módir hans vildi þad ekki, og kvad hann skyldi Jóhannes heita. 61. Þá sögdu þeir, ad enginn væri í ætt hennar med því nafni; 62. bendtu þeir sídan födur hans, ad hann léti þá vita hvad hann vildi, ad sveinninn héti. 63. Hann beiddi um spjald, og reit þar á: Jóhannes á hann ad heita; og furdadi alla á því. 64. Í þessu bili fékk hann aptur mál sitt, og tók hann þá ad tala og lofa Gud. 65. Þenna adburd undrudust allir nærstaddir nábúar hans, og saga þessi barst út um allar fjallbygdir Júdeu; 66. og öllum sem þetta heyrdu, vard þad minnisstædt, og sögdu: hvad mun þessi sveinn verda? því Gud héldt hendi sinni yfir honum. 67. Sakarías fyltist þá heilögum anda, spádi og mælti: 68. „Lofadur veri Drottinn, Gud Ísraels manna, sem vitjadi síns fólks, og frelsadi þad, 69. og sendi oss öflugann hjálpara af ætt síns þjóns Davíds, 70. eins og hann í öndverdu hét fyrir sína helgu Spámenn, 71. ad frelsa oss frá óvinum vorum og undan valdi allra vorra haturs manna; 72. ad audsýna fedrum vorum miskun, og efna sinn heilaga sáttmála, 73. eptir þeim eidi, er hann vann forfödur vorum Abrahami, ad hann vildi unna oss, 74. frelsudum af valdi óvina vorra, ad þjóna sér óttalaust, 75. med heilagleika og rádvendni um alla æfi vora. 76. Og þú, sveinn,

V. 47. 1 Sam. 2, 4. 7. ff. Matt 5, 3. V. 53. Matt, 5, 6. V. 55. 1 Mós. 17, 7. 19. 18, 18. V. 73. 1 Mós. 22, 16 — 18.

munt kallast Spámadur Guds, því þú munt
verda fyrir-rennari Drottins til ad búa honum
veg, 77. og géfa hans fólki þekkíngu sáluhjálp-
arinnar, fyrirgéfníngu syndanna, 78. fyrir hjart-
gróna miskun Guds vors, hvørri vér egum þad
ad þakka, ad oss upprennur ljós af himni, 79.
ad lýsa þeim, sem í myrkrunum og daudans
skugga eru, ad hann greidi fótum vorum feril
til velferdar." 80. En sveinninn vóx og styrkt-
ist í anda. Dvaldi hann í fjallbygdum til þess
tíma, er hann framm gékk a) fyrir Israels lýd.

## 2. Kapítuli.

*Jesús fædist; er umskorinn; færdur Drottni til must-
erisins; er uppalinn í Nasaret; fer 12 ára til páska-
hátídarinnar.*

1. Um þessar mundir kom þad bod frá
Augústus Keisara, ad taka skyldi manntal um
allan heim. 2. (Þetta manntal vard fyrst þá
Kyreníus var Landshøfdíngi á Sýrlandi). 3.
Fóru þá allir til manntals, hvørr til sinnar
borgar. 4. Þá fór og Jósep frá Galíleu úr
borginni Nasaret upp til Júdeu til borgar Da-
víds, sem heitir Betlehem, því hann var af
húsi b) og kynþætti Davíds, 5. til manntals,
ásamt med Maríu, heitkonu sinni, sem þá var
med barni. 6. En svo bar vid á medan þau
dvøldu þar, ad kom ad þeim tíma, er hún
skyldi ala barnid, 7. fæddi hún þá Son
sinn frumgétinn, vafdi hann reifum og lagdi
hann nidur í jøtuna, því þau fengu ekki hús-
rúm í gésta-herberginu. 8. En í því bygd-
arlagi voru fjárhirdarar, er vøktu úti um nótt-
ina yfir hjørd sinni; 9. og sjá, Engill Drott-
ins stód hjá þeim, og mikil birta ljómadi í
kríngum þá, urdu þeir vid þad nærsta hrædd-
ir; 10. þá tók Engillinn svo til orda: óttist
ekki — sagdi hann — því eg flyt ydur stór
fagnadar tídindi, sem vidkoma øllu fólki; 11.
því í dag er ydur Frelsari fæddur, hvørr ad
er Drottinn Kristur, í borg Davíds, 12. og
hafid þad til marks, ad þér munud finna reif-
ad barn liggjanda í jøtunni. 13. Strax var
þar hjá Englinum mikill fjøldi himneskra her-
sveita, sem lofudu Gud og søgdu: 14. dýrd
sé Gudi í upphædum, fridur á jørdu, og (Guds)
velþóknan yfir mønnunum. 15. Eptir ad
Englarnir voru farnir til himna, søgdu hirdar-
arnir hvørr vid annan: vér skulum fara til
Betlehems og sjá þennan atburd, sem Gud hef-
ir oss kunngjørt. 16. Sídan fóru þeir med
skyndi, fundu Maríu og Jósep, og barnid ligg-
janda í jøtunni; 17. skírdu sídan frá því, er
þeim hafdi sagt verid um sveininn, 18. og
undrudust allir, er heyrdu søgu þeirra. 19.
En María hugfesti allt þetta gaumgæfilega.
20. Sídan snéru hirdararnir aptur, lofudu Gud
og vegsømudu fyrir allt þad, er þeir høfdu séd
og heyrt, sem allt bar saman vid þad, er þeim
hafdi sagt verid.

21. Þegar lidnir voru átta dagar, þá
hann skyldi umskérast, var hann nefndur Jes-
ús, eins og hann var kalladur af Englinum c),
ádur enn hann var gétinn í módurlífi.

22. En er þeirra hreinsunar tími var lidinn,
einsog Mósisløg bjóda, fóru þau med hann
til Jerúsalem til ad færa hann Drottni, 23.
(einsog bodid er í løgmáli Guds, ad „allt karl-
kyns, er fyrst fædist af módurlífi, skal vera
Drottni helgad"), 24. og færa þá fórn, sem
bodin er í løgmáli Guds, sem var tvær turt-
il-dúfur eda tveir dúfu-úngar. 25. Þá var
í Jerúsalem sá madur, er Símeon hét, hann
var rádvandur og gudrækinn, og vænti eptir

V. 79. Esa. 42, 7. V. 80. *a.* Þ. e. gaf sig opinberlega fram til ad kénna. V. 4. *b.* Hvørri ættkvísl hjá Gydíngum var skipt í kynþætti, og hvørjum kynþætti í ættfedra hús, 4 Mós. 1, 2. 18. 20. o. s. frv. V. 21. *c.* Sjá Matt. 1, 21. V. 23. 2 Mós. 13, 2. V. 24. 3 Mós. 12, 6. 8.

huggun Ísraelsmanna, og heilagur Andi var
yfir honum. 26. Honum hafdi Gud birt, ad
hann ekki skyldi deya, fyrr enn hann sæi Drott=
ins Smurda a). 27. Símeon kom ad and=
ans tilladan, í musterid, í því sama og for=
eldrarnir færdu þángad sveininn Jesúm, til ad
fara med hann eptir løgmálinu, eins og sidur
var til; 28. hann tók hann í fáng sér, og
lofadi Gud med þessum ordum: 29. „lát þú
nú, Drottinn! þjón þinn í fridi (hédan) leys=
ast, eins og þú hefir mér heitid, 30. þared eg
hefi feingid ad sjá þann, 31. sem þú hefir
ætlad til hjálprædis øllum þjódum, 32. til
upplýsíngar heidíngjum og vegsemdar Ísraels=
fólki. 33. En Jósep og módir hans undrud=
ust yfir því, er um hann var spád. 34.
Sídan bad Símeon þeim góds, og mælti svo
til Maríu módur hans: þessi er settur til ad
verda mørgum Ísraelsmanna til falls og
mørgum til vidreisnar, og til ad verda þad
tákn b), hvørju móti verdur mælt. 35. [En
(sorgar) sverd mun þína eigin sálu nísta], svo
margra hjartans hugrenníngar munu verda op=
inberar c). 36. Þar var og Anna Spákona,
dóttir Fanúels af ætt Assers, hún var þá
hnígin á efra aldur, hafdi verid sjø ár í
hjónabandi med manni sínum, er fékk hennar
meyar; 37. nú var hún ekkja, og hafdi hér
um bil fjóra vetur um áttrædt. Hún var
jafnan í musterinu, og dýrkadi Gud nætur og
daga med føstum og bænum. 38. Hana bar
þar ad í því sama, prísadi hún Guds gjædsku, og
lagdi út af henni fyrir øllum þeim í Jerúsalem,
sem Frelsarans væntu. 39. Nú er þau høfdu
lokid øllu, er løgmál Drottins baud, snéru þau
aptur til Galíleu til borgar sinnar Nasa=
ret. 40. En sveinninn vóx og styrktist í
anda og fyltist vitsku; því Guds nád var
yfir honum.
41. Þad var vani foreldra hans ad fara
hvørt ár upp til Jerúsalem á páskum. 42.
Nú bar svo vid, þegar hann var tólf vetra,
ad þau ferdudust þángad, eins og sidur var
til á hátídinni. 43. Þegar hún var lidin,
snéru þau aptur heimleidis; en sveinninn Jes=
ús vard eptir í Jerúsalem, svo Jósep og módir
hans urdu ekki vør vid þad; 44. því þau
ætludu ad hann mundi vera í flokki samferda
manna þeirra; fóru þau svo eina dagleid, og
leitudu eptir honum medal frænda og kunn=
íngja. 45. Og þegar þau fundu hann ekki,
snéru þau aptur til Jerúsalem, og leitudu hans
þar; 46. og eptir þrjá daga fundu þau hann
í musterinu, hvar hann sat medal Lærifedr=
anna, hlýddi á tal þeirra og spurdi þá; 47.
en alla, sem heyrdu, furdadi á skilníngi hans
og andsvørum. 48. Og þau undrudust nærsta
er þau sáu hann þar. Þá sagdi módir hans:
því breyttir þú svo vid okkur, Sonur minn?
fadir þinn og eg leitudum þín sorgmædd. 49.
Hann mælti: því hafid þid leitad eptir mér?
visdud þid ekki, ad mér ber ad vera í því,
sem míns fødurs er? 50. En þau skildu
ekki hvad hann meinti. 51. Sídan fór hann
med þeim til Nasareth, og var þeim hlýdinn.
Allt þetta hugfesti módir hans; 52. en Jesú
óx vitska med aldri, og hylli Guds og manna.

## 3. Kapituli.

*Jóhannes skírir og kénnir; er settur í myrkvastofu; skírir Jesúm. Ættartala Jesú.*

1. Á fimtánda ríkis=ári Tiberíusar Keisara,
þegar Pontíus Pílatus var Landshøfdíngi í
Júdeu, Heródes Fjórdúngs=høfdíngi í Galíleu,

V. 26. *a.* Messías. V. 34. *b.* sbr. Lúk. 11, 30. V. 35. Jóh. 19, 25; *c.* þegar Jesús var lífiátinn, lýsti þad sér, hvørr hefdi elskad hann og hans lærdóm af hreinu hjarta, og hvørjir af sérplægni. V. 41, sjá 2 Mós. 23, 14. ff.

en Filippus bródir hans í Itúríu og Trakonít-
is, og Lysanías í Abílenu; 2. þegar þeir Ann-
as og Kaífas voru ædstu Prestar; þá kom
ord Guds til Jóhannesar Sakaríassonar, er
var í óbygdum, 3. og hann fór um øll þau
héröd, er liggja vid Jórdan og kéndi, ad menn
skyldu skírast idrunarskírn, svo þeir fengi kvitt-
un synda sinna, 4. einsog segir í Spádóms-
bók Esaíasar, er hann kvedur svo ad ordi: „kall
er heyrt í óbygdinni, tilbúid veg Drottni,
jafnid brautir hans; 5. hvørt dalverpi skal
uppfyllast, og øll fjøll og hálsar lægjast; þeir
enir krókóttu vegirnir skulu gjørast beinir, og
þeir hrjóstugu sléttir, 6. og hvørr madur mun
þá géta sjed hjálprædi Guds.“ 7. Hann tal-
adi því til þess múga manns, sem fór út til
ad skírast af honum, og tók svo til orda: þér,
nødrukyn! hvørr hefir sagt ydur, ad þér þann-
inn gétid umflúid tilkomandi hegníngu? 8. til
þess verdid þér ad bera idruninni sambodna á-
vexti. Metnist ekki af því, ad þér séud Abra-
hams ættar, því, trúid mér! máttugur er Gud
ad vekja Abrahami børn af steinum þessum a).
9. Øxin er þegar reidd ad rótum trjánna;
hvørt þad tré, sem ekki ber gódan ávøxt, skal
upphøggvid verda og í eldinn kastad. 10. Þá
spurdi fólkid hann ad, hvørninn þad ætti ad
haga sér? 11. Jóhannes mælti: hvørr, sem
hefir tvo kyrtla, sá gési annan þeim, sem eng-
an hefir; eins á sá ad gjøra, sem matfaung
hefir. 12. Þá komu og tollheimtu-menn ad
skírast; þessir spurdu hann einninn og søgdu:
Meistari! hvørninn egum vér ad breyta? 13.
Hann mælti: krefjist ekki meir, en ydur er bod-
id. 14. Líka spurdu stridsmenn hann, hvørn-
inn þeir ættu ad haga sér? hann mælti: tak-
id ekki fé af neinum med valdi eda prettum,
heldur látid ydur nægja med ydar málagjald.
15. Þegar nú fólkid var komid í þá ætlun,
og allir voru teknir ad halda, ad Jóhannes
kannské væri Kristur, 16. sagdi hann þannig
øllum áheyrandi: eg skíri ydur einúngis í
vatni, en sá, sem eptir mig kémur, er mér
svo miklu meiri, ad eg er ekki verdur ad leysa
skóþveingi hans. Hann mun ydur skíra med
heiløgum Anda og eldi. 17. Sína varp-
skúflu ber hann í hendi sér, med hvørri hann
hreinsar sinn láfa; korninu mun hann safna í
hlødu, en hismid brenna í eldi þeim, er ekki
slokknar. 18. Margt annad fleira kéndi
hann fólkinu. 19. En vegna þess ad Jó-
hannes hafdi ávítad Heródes Jarl, bædi fyrir
þad, ad hann hafdi tekid saman vid Heródías,
konu bródur hans, og fyrir allar þær ódádir,
sem Heródes hafdi gjørt, 20. bætti Heródes
því vid allt hitt, ad hann lokadi Jóhann-
es í myrkvastofu.

21. En svo bar vid, þegar allt fólk lét
sig skíra, og Jesús var skírdur og gjørdi bæn
sína, ad himininn opnadist honum, 22. og
Andi Guds steig nidur í líkamlegri mynd, eins
og dúfa, yfir hann; þá heyrdist og rødd af
himnum, er sagdi: þú ert minn elskulegur
Sonur, á hvørjum eg hefi velþóknun.

23. En sjálfur var Jesús hér um þrítug-
ur ad aldri, þegar hann hóf ad kénna, og var
haldinn sonur Jóseps, sonar Elí; 24. sonar
Mattats, sonar Leví, sonar Melki, sonar Janna,
sonar Jóseps; 25. sonar Matatías, sonar
Amos, sonar Naúms, sonar Eslí, sonar Nagg-
aí; 26. Sonar Maats, sonar Matatías, son-
ar Simei, sonar Jóseps, sonar Júda; 27.

---

V. 2 — 9, sbr. Matt. 3, 1 — 12. Mark. 1, 1 — 8. Jóh. 1, 6. 19. 23. 26. 27. V. 4. Es. 40, 3. 4. V. 8. a. Gud lætur þá, er þér haldid þar til ólíklegasta — nefnil. heidingjana — heldur njóta fyrirheitis þess, er Abrahami var gésid, en ydur, eins vondir og þér erud, Jóh. 8 39. V. 19 — 20, sbr. Matt. 14, 3 — 10. Mark. 6, 17. ff. V. 21 — 22. Matt. 3, 13 — 17. Mark. 1, 9 — 11. V. 23 — 38, sbr. Matt. 1, 2 — 16.

sonar Jóhanna, sonar Hresa, sonar Sóróbabels, sonar Salatiels, sonar Nerí; 28. sonar Melkí, sonar Addi, sonar Kósams, sonar Elmódams, sonar Ers; 29. sonar Jóse, sonar Eliesers, sonar Jórims, sonar Mattats, sonar Leví; 30. sonar Símeons, sonar Júda, sonar Jóseps, sonar Jónans, sonar Elíakims; 31. sonar Melea, sonar Mainans, sonar Mattata, sonar Natans, sonar Davíds; 32. sonar Jessai, sonar Obeds, sonar Bóos, sonar Salmóns, sonar Naassóns; 33. sonar Amínadabs, sonar Arams, sonar Esroms, sonar Fares, sonar Júda; 34. sonar Jakobs, sonar Ísaks, sonar Abrahams, sonar Tara, sonar Nakórs; 35. sonar Sarúks, sonar Ragavs, sonar Faleks, sonar Ebers, sonar Sala, 36. sonar Kainans, sonar Arfaxads, sonar Sems, sonar Nóa, sonar Lameks; 37. sonar Matúsala, sonar Enoks, sonar Jareds, sonar Malaleels, sonar Kaínans; 38. sonar Enoss, sonar Sets, sonar Adams, sonar Guds.

## 4. Kapítuli.

Jesú er freistad; hann kénnir í Galíleu og Nasaret; í Kapernaum og læknar þar djøfulódan einninn tengdamódur Péturs og fleiri sjúka.

1. Sídan snéri Jesús aptur frá Jórdan, fullur af heiløgum anda, og var leiddur af andanum útá eydimørku; 2. hér var hann í fjørutíu daga freistadur af djøflinum, og hafdi í þá daga ekki til matar, og er þeir voru lidnir, tók hann loksins ad húngra. 3. Þá sagdi djøfullinn: ef ad þú ert Guds Sonur, þá bjód þú, ad steinn þessi verdi ad braudi. 4. Jesús svaradi: skrifad er, ad madurinn lifi ekki af braudi einusaman, heldur af hvørju því, er Gud vill. 5. Þar eptir fór djøfullinn med hann uppá hátt fjall, og sýndi honum þadan øll ríki jardarinnar í einu augabliki, 6. og sagdi: allt þetta veldi mun eg géfa þér med øllum sínum blóma, því allt er mér þad í vald géfid, svo eg gét géfid þad hvørjum, sem eg vil; 7. skal allt þetta vera þín eign, ef þú fellur fram og tilbidur mig. 8. Jesús svaradi, þad er og skrifad: „Gud þinn skaltú tilbidja, og hann einnsaman dýrka". 9. Sídan færdi djøfullinn hann til Jerúsalem, og setti hann uppá musteris bustina og mælti: efad þú ert Guds Sonur, þá lát fallast hér ofan fyrir, 10. því þad er ritad: Gud mun bjóda englum sínum ad gjæta þín og bera þig á høndum sér, 11. ad ekki steytir þú fót þinn vid steini. 12. Jesús svaradi: þad er og sagt, ad eigi skaltú freista Drottins Guds þíns. 13. Og er djøfullinn hafdi lokid þessum freistíngum, veik hann frá honum um hríd.

14. Sídan snéri Jesús, styrktur Guds Anda krapti, aptur til Galíleu, og ordstír hans barst út um øll nærliggjandi hérød; 15. hann kéndi í samkundu-húsum þeirra, svo allir prísudu hann; 16. hann kom og til Nasaret, þar sem hann var uppalinn, og gékk á hvíldar-deginum, eins og hann var vanur, í samkundu-húsid, og stód upp til ad lesa, 17. og var honum feingin spádómsbók Esaíasar; en er hann fletti upp bókinni, vard fyrir honum sá stadur, hvar þetta er skrifad: 18. „Andi Drottins er yfir mér, þar hann hefir vígt mig til ad flytja fátækum gledilegan bodskap, sendt mig til ad boda herteknum lausn, blindum ad þeir fái sýn sína aptur, láta þá þjökudu lausa, 19. og ad kunngjøra, ad hid þókknanlega árid Drottins sé fyrir hendi"; 20. sídan lét hann aptur bókina, fékk þjóninum, og gékk til sætis, en allir, sem í samkundu-hús-

V. 1—13, sbr. Matt. 4, 1—11. Mark. 1, 12. 13. V. 4. 5 Mós. 8, 3. V. 8. 5 Mós. 6, 13. V. 10. Sálm. 91, 11. 12. V. 12. 5 Mós. 6, 16. V. 14—30, sbr. Matt. 4, 12. ff: Mark. 1, 14. ff. V. 18. Es. 61, 1. 2. 58, 6.

inu voru, størdu á hann; 21. hóf hann þá
mál sitt á þessa leid: í dag er þessi spádóm-
ur framkominn, eins og þér erud sjálfir vitni
til. 22. Lofudu hann þá allir, og dáduſt ad
kénníngu hans og blídu málsnilli, en søgdu
þó: er ekki þessi sonur Jóseps? 23. Þá
sagdi hann vid þá: vissulega munud þér
heimfæra uppá mig máltækid: læknir! lækna
sjálfan þig; vér høfum heyrt, hvad þú hefir
adhafst í Kapernaum; gjør þú nú hid sama
hér á ætt-jørd þinni. 24. En — sagdi hann
framvegis — trúid mér til þess: ad einginn
spámadur er vel metinn á ættjørd sinni. 25.
Eg segi ydur þad satt: ad margar ekkjur
voru medal Israels fólks á døgum Elíasar
spámanns, þegar ekki rigndi í þrjú ár og sex
mánudi, svo mikid óár var í øllu landinu;
26. en til engrar þeirra var Elías sendur,
nema til ekkjunnar í Sarepta hjá Sídón. 27.
Margir voru og líkþráir medal Israels manna
á døgum Elíseusar spámanns, en einginn
þeirra vard læknadur nema Naaman sýrlendski.
28. En er þeir, sem í samkunduhúsinu voru,
heyrdu þetta, urdu þeir allir afar-reidir, 29.
risu upp, hræktu hann útaf borginni og leiddu
hann uppá nýpu fjalls þess, á hvørju borg
þeirra var bygd og ætludu ad steypa honum
þar ofanfyrir, 30. en hann gékk burt midt á
medal þeirra, og fór þadan.

31. Hédan fór hann til Kapernaum borg-
ar í Galíleu landi og kéndi þeim á hvíldar-
døgunum, 32. og undruduſt þeir kénníngu
hans; því hann taladi a) af myndugleika. 33.
Í samkunduhúsinu var madur nokkurr kvalinn
óhreinum anda; hann kalladi há-støfum, 34.
og sagdi: æ, hvad þurfum vid ad egast vid?
Jesú frá Nasaret! ertú kominn til ad fyrirfara
oss? eg veit hvørr þú ert, Guds hinn helgi.
35. En Jesús hastadi á hann, og sagdi:
þegi þú, og far þú útaf honum; þá hreif
djøfullinn hann og kastadi honum fram á medal
þeirra, yfirgaf hann og gjørdi honum ekki
mein. 36. Þetta undruduſt allir næsta mjøg,
og søgdu hvør vid annan: hvílík ræda er
þetta, ad hann skipar óhreinum øndum med
myndugleika og valdi, og þeir fara? 37.
Barst þá ordstír hans út um øll þau hérød,
er í grend voru.

38. Úr samkunduhúsinu fór hann í hús
Símónar; þar lá módir konu Símónar mjøg
sjúk af køldu, og bádu þeir hann fyrir hana.
39. Fór hann þá til hennar, skipadi køldunni
ad hverfa burt, og hvarf hún þá frá henni;
fór þá konan strax á fætur og þjónadi þeim.
40. Þegar sól var setst, færdu menn til hans
alla þá sjúklínga, er haldnir voru af ýmis-
legum veikindum; lagdi hann høndur yfir sér-
hvørn þeirra, og læknadi þá. 41. Djøflar
fóru og útaf mørgum, æptu og søgdu: þú
ert Sonur Guds; en hann bannadi þeim ad
tala, því þeir vissu, ad hann var Kristur. 42.
Strax er dagadi, fór hann út úr borginni í
eydistad nokkurn, en fólkid leitadi hans og
fann hann, bádu þeir hann þá innilega, ad
hann ekki færi frá þeim; 43. en hann sagdi:
mér ber og ad boda Guds ríki í ødrum borg-
um; því til þess er eg sendur. 44. Fór hann
sídan og kéndi í samkundu-húsunum í Galíleu.

## 5. Kapítuli.

Jesús kénnir af skipinu; læknar einn líkþráan og fleiri; læknar visinn mann, og sannar þar med ad hann hafi vald til ad fyrirgéfa syndir; kvedur Leví til ad fylgja sér, og forsvarar, ad hann eti med tollheimtu-mønnum, talar um føstu.

1. Einhvørju sinni bar svo vid, er fólkid

V. 26. 1 Kóng. 17, 9. V. 27. 2 Kóng. 5, 14. V. 31—41, sbr. Mark. 1, 21—34. Matt. 8, 14—17 V. 32. a. Þ. e. í umbodi Guds, Matt. 7, 29. V. 42—44. Mark. 1, 35—38. V. 1—11, sbr. Matt. 4, 18—22. Mark. 1, 16—20.

þreyngdist ad honum til ad heyra Guds ord, en hann stód vid vatnid Genesaret, 2. ad hann leit tvø skip vid vatnid, en fiskimennirnir voru farnir í land og voru ad þvo net sín, 3. fór hann þá í annad skipid, sem Símon átti, og bad hann leggja lítid frá landi; settist hann þá nidur og kéndi fólkinu af skipinu; 4. en er hann hætti ad kénna, sagdi hann vid Símon: legg þú út á djúpid, og leggid net ydar til fiski. 5. Símon mælti: Meistari! vér høfum setid í alla nótt og ekkért fiskad; en ad þínu bodi vil eg leggja netid. 6. Þeir gjørdu svo; kom þá svo mikill fiskur í netid, ad þad tók ad rifna; 7. þá bendtu þeir féløgum sínum á hinu skipinu, ad þeir kjæmu þeim til lids; þeir komu og søkkhlódu bædi skipin. 8. Þegar nú Símon Pétur sá þetta, féll hann til fóta Jesú og sagdi: far þú frá mér, Herra! því eg er madur syndugur; 9. því felmtur var kominn yfir hann og alla þá, sem med honum voru af þeim mikla afla, sem þeir høfdu fengid; 10. eins yfir Jakob og Jóhannes, sonu Sebedeusar, sem voru félagar hans. Þá sagdi Jesús vid Símon: óttast þú ekki! hédan í frá skaltú menn veida. 11. Drógu þeir sídan skip sín á land, yfirgáfu allt og fylgdu honum.

12. Einhvørju sinni bar svo vid, þá hann var í borg nokkurri, ad líkþrár madur var þar; en sem hann sá hann, féll hann fram á ásjónu sína og bad hann svofeldum ordum: ef þú vilt, Herra! gétur þú læknad mig. 13. Jesús rétti út høndina, hrærdi vid honum og mælti: eg vil, vertú heilbrigdur; og strax hvarf líkþráin frá honum. 14. Frá þessu bannadi Jesús honum ad segja nokkrum manni, heldur far og sýn þig Prestinum og fær fórn fyrir fengna heilbrigdi, einsog Móses hefir bodid, ødrum til sanninda merkis. 15. En ordstír hans útbreiddist meir og meir, og fjøldi fólks kom ad heyra kénníngu hans, og til ad læknast af honum af sjúkleikum sínum; 16. en sjálfur veik hann til eydi=stada og var þar á bæn.

17. Svo bar vid á einum degi, er hann kéndi, og þar sátu Farísæar og Løglærdir, er komnir voru úr øllum þorpum í Galíleu, Júdeu og frá Jerúsalem, og kraptur Guds audsýndi sig í ad lækna marga; 18. ad þar komu nokkrir menn, er báru visinn mann á sæng. Þeir leitudust vid ad bera hann inn, og leggja hann fram fyrir Jesúm; 19. en áttu ekki kost á því fyrir mannþraunginni. Fóru þeir þá uppá þakid, og létu hann síga nidur gégnum þad í sænginni frammi fyrir Jesú; 20. og er hann sá trú þeirra, sagdi hann: þú, madur! syndir þínar eru þér fyrirgéfnar. 21. Þá tóku Farísæar og þeir Løglærdu ad hugsa med sér, hvørr sá væri, er færi med slíka gudløstun, þar enginn kynni ad fyrirgéfa syndirnar, nema Gud einn. 22. Þá sagdi Jesús, sem vissi hvad þeir hugsudu, vid þá: hvad er þad, sem þér hug um leidid? 23. hvørt er audveldara ad segja: þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, eda: statt upp og gakk? 24. En til þess ad þér vitid ad Mannsins Sonur hefir vald á jørdu ad fyrirgéfa syndirnar, þá statt þú upp, segir hann til þess visna, tak þú sæng þína, og far þú heim til þín. 25. Fór hann þá strax á fætur, svo allir sáu, tók þad, sem hann hafdi legid á, og fór til húss síns, lofandi Gud. 26. Þetta þókti øllum en mestu undur, og vegsømudu Gud óttafullir, og søgdu: furdulegir hlutir eru þad, sem vér høfum sjed í dag.

27. Sídan fór hann burt; þá sá hann tollheimtu=mann, er sat hjá búd sinni, Leví ad nafni; 28. þenna kvaddi hann til fylgdar vid sig; hann yfirgaf allt og fylgdi honum. 29.

V. 12—16. Matt. 8, 2—5. Mark. 1, 40—45. V. 14. 3 Mós. 14, 10. ff. V. 17—26, sbr. Matt. 9, 2—8. Mark. 2, 1—12. V. 27—30. sbr. Matt. 9, 9—17. Mark. 2, 13—22.

Nokkru sídar bjó Leví honum veitslu mikla í
húsi sínu, var þar ad bodum margt tollheimtu-
manna og annara. 30. Ut af þessu knurrudu
Faríséar og þeir Løglærdu vid Lærisveina hans
og spurdu: hví þeir hefdu samneyti vid toll-
heimtara og bersynduga. 31. Jesús svaradi:
ekki þurfa heilbrigdir læknis vid, heldur þeir,
sem vanheilir eru; 32. ekki er eg kominn ad
kalla réttláta, heldur synduga til lifnadar bóta.

33. Þá søgdu þeir til hans: því fasta Læri-
sveinar Jóhannesar optlega og eru á bænum,
eins Lærisveinar Faríséanna, en þínir neyta mat-
ar og drykkjar? 34. Jesús mælti: traudt munu
brúdmennirnir fasta, medan brúdguminn er med
þeim; 35. en sá tími mun koma, ad brúdgum-
inn verdur tekinn frá þeim, og þá munu þeir
fasta; 36. sídan sagdi hann þeim þetta til dæm-
is: enginn leggur nýa bót á gamalt fat, því
annars rífur bædi nýa bótin gamla fatid, og
sambýdur því ekki heldur, af því hún er tekin
af nýu. 37. Ekki heldur plaga menn ad láta
nýtt vín í gamla belgi, annars sprengir hid
nýa vínid gømlu belgina; spillist þad, en belg-
irnir ónýtast; 38. heldur ber ad láta nýtt vín
á nýa belgi og vardveitist þá hvørttveggja. 39.
Ekki heldur plagar sá, sem drekkur gamalt vín,
ad girnast strax nýtt vín, því honum þykir
þad gamla betra.

## 6. Kapítuli.

Lærisveinar Jesú plokkudu korn-ox á hvíldardegi; Jesús læknar mann handar-visinn; er a bæn, útvelur þá tólf Postula og læknar; kennir hvørjir sælir séu, og um miskun í dómum; kénnir, ad sinnislagid þekkist af verkunum.

1. Þad bar vid á hvíldardegi þeim, sem
fyrstur er eptir Páska, ad hann fór yfir akur-
lønd nokkur; reittu þá Lærisveinar hans korn-
ox nokkur, néru þau med høndum sínum og
átu; 2. þá søgdu nokkrir af Faríséunum vid
þá: hví hafist þér þad ad, sem ekki er leyfilegt
á hvíldardøgum? 3. Jesús svaradi þeim: haf-
id þér ekki lesid, hvad Davíd gjørdi, þegar
hann og menn hans voru matþurfar? 4. ad
hann fór inn í Guds hús a), tók braudin helgu,
át þau sjálfur, og gaf fylgdarmønnum sínum;
en þessi braud mátti einginn eta nema prest-
arnir; 5. og enn framar sagdi hann: Manns-
ins Sonur er líka herra hvíldar-dagsins.

6. Á ødrum hvíldar-degi kom hann í
samkundu-hús þeirra og kéndi, var þar þá
madur nokkur, sem hafdi ena hægri hønd
visna; 7. en Faríséar og enir skriftlærdu gáfu
gjætur ad, hvørt hann læknadi á hvíldar-degi,
svo þeir fengi tilefni til ad ásaka hann. 8.
Þá sagdi Jesús, sem vissi hvad þeir hugsudu,
vid manninn, sem visna hafdi høndina: stattú
á fætur, og kom þú fram hingad. Madur-
inn stód upp og kom. 9. Þá sagdi Jesús
vid þá: eg vil spyrja ydur: hvørt er heldur
leyfilegt ad gjøra á hvíldar-døgum gott edur
íllt; ad frelsa líf manns edur ad fyrirfara
því? 10. Þá hann hafdi litid í kríng til
allra, er vid voru, sagdi hann vid manninn:
réttu fram hønd þína! hann gjørdi svo, og
vard hún þá jafn-heil sem hin. 11. Vid þetta
urdu þeir afar-reidir, og báru saman rád
sín um, hvad þeir skyldu gjøra vid Jesúm.

12. Um þessar mundir fór hann uppá
eitt fjall, ad bidjast fyrir, og var þar alla
nóttina á bæn til Guds. 13. En er dagur
kom, kalladi hann til sín Lærisveina sína, og
valdi tólf af þeim, sem hann kalladi Postula;
14. þessir voru: Símon, sem hann kalladi
Pétur, og Andrés bródir hans, Jakob og

V. 1—5, sbr. Matt. 12, 1—8. Mark. 2, 23—28. V. 2. 2 Mós. 20, 10. 31, 15. V. 3. 1 Sam. 21, 6. V. 4. *a.* Tjaldbúdina, 3 Mós. 24, 9. Sbr. 2 Mós. 29, 32. V. 5. sbr. Mark. 2, 28. V. 6—11. Matt. 12, 9—14. Mark. 3, 1—6. V. 12—16. Matt. 10, 1—4. Mark. 3, 7—12.

Jóhannes, Filippus og Bartólómeus; 15. Matteus og Tómas, Jakob Alfeusson, og Símon, sem kalladist vandlætari: 16. Júdas Jakobsson og Júdas frá Kariot, sem sídan sveik hann. 17. Med þeim fór hann nidur af fjallinu, og nam stadar á velli nokkrum; var þar þá med honum fjøldi af Lærisveinum hans og miklar sveitir fólks úr allri Júdeu og Jerúsalem, og frá sjáfarbygdinni hjá Týrus og Sídón; 18. sem komnar voru ad heyra hann, og til ad læknast af sjúkdómum sínum, og þeir er þjádir voru af óhreinum øndum. 19. Urdu þeir allir heilbrygdir, og leitudust þeir allir vid ad snerta hann, því kraptur gékk út frá honum, sem læknadi þá alla. 20. Jesús leit þá til Lærisveina sinna og hóf svo rædu sína: Sælir erud þér, fátækir! því ydar er Guds ríki; 21. sælir erud þér, sem nú lídid húngur! þér skulud saddir verda; sælir erud þér, sem nú erud sorgbitnir! sídar munud þér huggun hljóta. 22. Sælir erud þér, nær menn hatast vid ydur vegna Mannsins Sonar, útskúfa, lastmæla og bera út um ydur óhródur, sem værud þér illir menn! 23. fagnid þá og verid kátir, því mikil laun munud þér á himni hljóta; því þannig breyttu forfedur þeirra vid Spámennina. 24. Vei ydur, þér ríku! því þér hafid úttekid ydar gledi. 25. Vei ydur, þér søddu! því þér munud húngur lída; vesælir erud þér, sem nú hlæid! því þér munud sýta og gráta; 26. vesælir erud þér, nær menn brúka vid ydur fagurgala! því eins gjørdu forfedur ydar vid falsspámennina. 27. En ydur býd eg, er ord mín heyrid: elskid óvini ydar, gjørid þeim gott, sem hata ydur; 28. árnid þeim góds, sem formæla ydur, og bidjid fyrir þeim, er ydur gjøra órétt. 29. Slái nokkur þig á adra kinn þína, þá bjód þú honum hina; og ef einhvørr tekur frá þér yfirhøfn þína, þá meinadu honum ekki ad taka kyrtil þinn. 30. Géf þú hvørjum, sem bidur þig, og ef einhvørr tekur frá þér þad, sem þitt er, þá kref þú þess ekki aptur. 31. Og eins og þér viljid ad adrir breyti vid ydur, eins egid þér ad breyta vid þá. 32. Því þó þér elskid þá, sem ydur elska, hvad gjørid þér í því þad launa verdt sé? því bersyndugir elska einninn þá, sem þá elska; 33. og þó þér gjørid þeim gott, sem ydur gjøra gott, hvad gjørid þér í því þad launa sé verdt? því bersyndugir gjøra hid sama. 34. Og þó þér lánid þeim, hjá hvørjum þér væntid ad fá þad lánada aptur, hvad gjørid þér í því þad launa verdt sé? því bersyndugir lána líka sínum líkum, svo þeir fái fullt aptur. 35. Þér þar í mót egid ad elska óvini ydar, gjøra gott og lána, án þess ad vænta nokkurs aptur; þá mun umbun ydar verda mikil og þér munud vera verdir ad heita børn hins Hæsta, sem gjørir gott bædi vondum og vanþakklátum. 36. Verid því miskunsamir eins og Fadir ydar er miskunsamur. 37. Verid eigi ómildir í dómum ydrum, ad ekki verdi ómildt um ydur dæmt. Sakfellid eigi, ad þér eigi verdid sakfelldir; fyrirgéfid, þá mun ydur fyrirgéfid verda. 38. Géfid, svo mun ydur géfast, gódur mælir, trodinn, skékinn og fleytifullur, mun ydur géfinn verda; því med sama mæli og þér mælid ødrum, mun ydur aptur mælt verda. 39. Sídan sagdi hann þeim þetta til dæmis: hvørt fær sá, sem sjálfur er blindur, vísad ødrum blindum veg? munu þeir ekki bádir falla í gryfju? 40. Lærisveinninn er ekki fyrir sínum Lærimeistara, en sá, sem er fullnuma, er jafn sínum Lærimeistara. 41. Hvørninn fær þú sjed flísina í auga bródur þíns, en gjætir ekki þess

V. 17. Mark 3, 7—12. V. 20. Matt. 5, 1—13. V. 28. Matt. 5, 43. 44. V. 30. Matt. 5, 39—42. V. 31. Matt. 7, 12. V. 32. Matt. 5, 46. 48. V. 37. Matt. 7, 1. 2. V. 41—42. Matt. 7, 3—6.

bjálkans, sem er í þínu egin auga? 42. edur hvørninn fær þú sagt við hann: bródir! lát þú mig taka flísina úr auga þér, medan þú géfur ekki gaum ad bjálkanum í þínu egin auga? Þú, hræsnari! drag þú fyrst bjálkann úr þínu egin auga og sjádu sídan til, ad þú fáir dregíg flísina úr auga bródur þíns. 43. Það er ekki gott tré, sem ber slæma ávexti; ekki heldur er það slæmt tré, sem ber góda ávexti. 44. Sérhvørt tré þekkist af sínum ávexti; því ekki lesa menn fíkjur af þyrnum edur vínber af þistlum. 45. Gódur madur framber gott úr gódum sjódi hjarta síns, en illur madur framber illt úr vondum sjódi síns hjarta; því það mælir munnurinn, sem hjartad hefir nægst af. 46. Því kallid þér mig Herra, og gjørid þó ekki hvad eg býd ydur? 47. eg vil segja ydur hvørjum sá er líkur, sem kémur til mín og hlýdir minni kénníngu og breytir eptir henni, 48. hann er líkur manni þeim, er bygdi sér hús, gróf djúpt fyrir, og grundvalladi það á kletti; nú er vatnsflód kom, skall straumurinn á þessu húsi, en fékk hvørgi hrært það, því það var grundvallad á kletti. 49. Hinn, er heyrir mína kénníngu og breytir ekki eptir henni, hann er líkur manni þeim, er bygdi sér hús á jardvegi, en hafdi enga undirstødu; þegar straumarnir skullu á því, féll það strax, og þess hrun vard mikid.

## 7. Kapítuli.

Jesús læknar þjón Hundrads = høfdíngja nokkurs; endurlífgar son einnar ekkju; talar vid Jóhannesar Lærisveina um sjálfan sig; vid fólkid um Jóhannes og þjódarinnar vantrú; forsvarar sjálfan sig, og afleysir bersynduga kvinnu.

1. Þegar Jesús hafdi lokid þessari rædu í áheyrn lýdsins, fór hann inn í Kapernaum. 2. En þjón Hundrads = høfdíngja nokkurs lá sjúkur, adkominn dauda, sem honum var næsta kjær. 3. Þessi madur hafdi heyrt af Jesú, og sendi því til hans Öldúnga Gydínga, og bad hann koma til sín, og lækna þjón sinn. 4. Þeir komu til Jesú, og beiddu hann alúdlega, því hann er — søgdu þeir — verdur ad þú veitir honum þetta, 5. því hann elskar þjód vora, og hefir byggt handa oss samkunduhúsid. 6. Jesus fór med þeim; en er hann átti skammt eitt til hans, sendi Hundrads=høfdínginn vini sína og lét segja honum: ómaka þig ekki, Herra! því eg er ekki verdugur ad þú komir í hús mitt; 7. þar fyrir hefi eg ekki heldur álitid sjálfan mig verdan ad koma til þín; heldur mæl þú eitt ord og mun þjón minn heill verda. 8. Því eg, sem er sjálfur yfirvaldi undirgéfinn, hefi ad ráda fyrir stridsmønnum, og nær eg býd þessum ad fara, þá fer hann og hinum ad koma, þá kémur hann, og þræli mínum ad vinna þetta edur hitt, þá vinnur hann það. 9. Þegar nú Jesús heyrdi þetta, furdadi hann á þessum manni, og snérist ad þeim, sem med honum voru, og mælti: sannlega segi eg ydur, slíka trú hefi eg ekki fundid jafnvel medal Israelsmanna. 10. En þeir snéru aptur heim, er sendir voru, og fundu þjónin, er sjúkur hafdi verid, heilan heilsu.

11. Daginn eptir skédi það, ad hann fór til borgar þeirrar, sem heitir Nain; voru þá í ferd med honum margir af Lærisveinum hans og fjøldi fólks. 12. Nú er þeir komu ad borgarhlidinu, stód svo á, ad þar var borinn út daudur madur, hann var einbirni, og módir hans ekkja; fylgdi henni fjøldi bæarmanna. 13. Þegar Drottinn sá hana, kéndi hann í brjósti um hana, og sagdi: grát þú ekki! sídan gékk hann nær, og hrærdi vid lík=

V, 43—44. Matt. 7, 16—19, V. 45. Matt. 12. 34. V. 46—47. Matt. 7, 21—23. V. 48—49. Matt. 7, 24—27. V. 1—10. Matt. 8, 6—13. V. 8, sjá Skg. Matt. 8, 9.

børunum, en þeir, sem báru, stódu vid. Þá
sagdi hann: eg býd þér, þú úngi madur! ad
þú rísir upp. 15. Þá settist sá upp, er
daudur var og tók ad mæla: og hann gaf
hann aptur módur sinni. Vid þetta kom ótti
yfir alla, 16. vegsømudu þeir Gud og søgdu:
spámadur mikill er kominn til vor, Gud hefir
litid í nád sinni til síns lýds. 17. En þessi
fregn um hann barst út um alla Júdeu og
øll þau héruð, er í grend voru.

18. Frá øllu þessu søgdu Lærisveinar
Jóhannesar honum; 19. kalladi þá Jóhannes
á einhvørja tvo af þeim, sendi þá til Jesú,
og lét spyrja hann, hvørt hann væri sá, sem
koma ætti, edur ættu þeir annars ad vænta?
20. Þeir komu til hans, og mæltu: Jóhann-
es Skírari sendi okkur til þín, og lét spyrja,
hvørt þú værir sá, sem koma ætti, eda vér ætt-
um annars ad vænta. 21. En svo stód á, er
þeir komu, ad Jesús var ad lækna marga,
er þjádir voru af þúngum sjúkdómum og af
íllum øndum, og mørgum blindum gaf hann
aptur sýn þeirra. 22. Þá mælti Jesús: far-
id þid og segid Jóhannesi þad, sem þid sjáid
og heyrid: blindir fá sýn, haltir gánga, líkþrá-
ir hreinsast, daufir heyra, daudir upprísa og
fátækum bodast gledibodskapurinn a); 23. en
sæll er sá, sem ekki hneixlast á mér. 24. Þeg-
ar sendimenn Jóhannesar voru burtu farnir,
hóf Jesús ad tala til fólksins um Jóhannes á
þessa leid: hvad var þad, sem þér fórud í ó-
bygdir ad sjá? var þad reyrinn, er vindurinn
skekur? 25. hvad fórud þér ad sjá? var þad
madur skrautbúinn? trúid mér: þeir, sem í
skraut eru búnir og í sælgjæti lifa, eru í Kon-
úngann herbergjum. 26. Eda hvad fórud
þér þá ad sjá? var þad spámadur? já! eg
segi ydur satt, þann, er hvørjum spámanni var
meiri; 27. því hann er sá, um hvørn ritad
er: „minn sendiboda sendi eg undan þér, er
greida skuli veg þinn". 28. Trúid mér: eng-
inn er sá af konu fæddur, er meiri sé enn Jó-
hannes Skírari. Þó er sá, sem (ødrum) er
minni í Guds ríki b), honum meiri; 29. samt
lofadi øll alþýda og tollheimtumenn er hlýddu
hans kénníngu, Guds rádstøfun, og tóku skírn
hans; 30. En Faríseær og hinir skriftlærdu
einkisvirdtu Guds rádstøfun á sér, og létu ekki
skírast af honum. 31. Vid hvad skal eg þá
samlíkja þessarar aldar mønnum, edur hvørju
eru þeir líkir? 32. líkir eru þeir børnum,
sem á torgi sitja og kallast á: vér kvádum yd-
ur gledi-kvædi, en þér vildud ekki dansa; vér
þuldum ydur sorgar tølur, en þér sýndud eing-
in sorgar merki. 33. Því Jóhannes Skírari
kom, át ekki braud og drakk ekki vín, og þér
segid, ad hann sé vitstola. 34. Mannsins
Sonur kom og neytti alls frjálslega, og hann
kallid þér mathák og vínsvelg, vin tollheimt-
ara og bersyndugra; 35. en skynsamir menn
einir dæma rétt um skynsama hegdun.

36. Einhvørju sinni var þad, ad einn af
Faríseum baud honum til matar; kom hann
og settist undir bord; 37. en sjá, þar í bæn-
um var kona nokkur bersyndug; þegar hún
vard þess vís, ad hann var ad mat í húsi Farí-
seans, kom hún med smyrsla-krús; 38. stód á
baka til vid fætur hans og grét; sídan þvodi
hún fætur hans med tárum sínum, þerradi
þá med hári sínu, kyssti þá og smurdi med
smyrslunum. 39. En er Faríseinn, sem hon-
um hafdi bodid, sá þetta, hugsadi hann þann-
ig: ef ad þessi madur væri spámadur, þá
vissi hann, hvada kona þad er, sem hrærir
vid honum, ad hún er bersyndug. 40. Þá
mælti Jesús: Símon! eg hefi nokkud ad

V. 18—35. Matt. 11, 2—19. V. 22. *a*. Nl. ad sá fyrirheitni Frelsari sé kominn. V. 28. *b*. Þ. e. sá fáfródasti Krists lærisveinn hefir skírari þekkingu á Guds vilja og rádstøfun, en Jóhannes.

segja þér: hann mælti: seg þú það fram,
Meistari! 41. Jesús mælti: lánardrottinn
nokkurr átti tvo skuldunauta, ødrum þeirra
hafdi hann lánad fimm hundrud peninga,
en hinum fimmtíu; 42. nú er þeir ekkért áttu
til ad lúka med þessar skuldir, gaf hann þær
bádum upp. Hvørr þeirra heldur þú nú ad
elski hann meira? 43. Símon mælti: eg hygg
ad sá muni elska hann meira, sem hann gaf
upp stærri skuldina. Jesús sagdi: þú hefir rétt
ályktad; 44. snériſt sídan ad konunni og sagdi
vid Símon: sjer þú konu þessa? eg kom í
hús þitt og þú gafst mér ekki vatn ad þvo í
fætur mínar a), en hún hefir vætt þá med tár-
um sínum og þerrad þá med hári sínu. 45.
Ekki mynntist þú vid mig, en frá því eg kom
hér, hefir hún ekki hætt ad kyssa fætur mínar.
46. Ekki smurdir þú høfud mitt med vidsmjøri,
en hún hefir smurt fætur mínar med smyrslum;
47. vegna þessa segi eg þér það, ad hennar
mørgu syndir eru henni fyrirgéfnar, þar hún
audsýndi svo mikil elsku merki; því þeim, sem
lítid er fyrirgéfid, hann elskar lítid. 48. Sídan
sagdi hann vid konuna: þér eru þínar syndir
fyrirgéfnar. 49. Tóku þá bodsmennirnir ad
hugsa svo: hvørr er þessi, sem fyrirgéfur jafn-
vel syndirnar. 50. En hann sagdi vid konuna:
far þú í fridi! þín trú hefir hjálpad þér.

## 8. Kapítuli.

*Jesús ferdast um kríng og prédikar; framsetur dæmi-søguna um Sádmanninn; um ljósid á ljósahaldinu; segist meta sína tilheyrendur sem náskylda ættíngja; kyrrir vind og sjó; útrekur djøfla; læknar blód-fallssjúka kvinnu og uppvekur dóttur Jaírusar.*

1. Sídan fór hann borg úr borg og þorp úr
þorpi og kéndi þeim og flutti lærdóminn um
Guds ríki; 2. vóru þá med honum þeir tólf og
konur nokkrar, er hann hafdi læknad af illum
øndum og ødrum sjúkleikum; medal þeirra var
María frá Magdølum, frá hvørri sjø illir and-
ar høfdu út farid, 3. og Jóhanna kona Kúsa,
ármanns Heródesar, Súsanna og margar adr-
ar, sem veittu honum framfæri af eignum sínum.
4. Nú er margt fólk var samankomid, og
fjøldi úr stødunum var farinn út til hans, sagdi
hann þeim þessa dæmisøgu: 5. Sádmadur nokk-
urr fór ad sá akur sinn, en er hann var ad sá,
féll sumt sædid vid veginn og vard fóttrodid,
og átu fuglar það. 6. Sumt féll í grýtta jørd,
og er það óx, skrælnadi það, því það vantadi
vøkva; 7. sumt féll medal þyrna, uxu þeir upp
med og kjæfdu það; 8. en sumt féll í góda jørd,
óx upp og bar hundradfaldan ávøxt. Þegar
hann hafdi þetta sagt, kalladi hann hátt og
sagdi: hvørr hann hefir eyru ad heyra med, hann
heyri. 9. Sídan spurdu Lærisveinar hans,
hvad þessi dæmi-saga ætti ad þýda. 10.
Hann mælti: ydur er unnt ad skilja leynda lær-
dóma Guds ríkis; hinum ødrum kénni eg í
dæmisøgum. Því þó þeir sjái, er það, sem sæu
þeir ekki; og þó þeir heyri, sem heyrdu þeir ekki.
11. En þessi er útskíríng dæmi-søgunnar: Sæd-
id merkir Guds ord; 12. það, sem féll vid
veginn, þýdir þá, sem nema það; sídan kémur
djøfullinn og tekur það burt úr hugskotum þeirra,
ad þeir ekki skuli trúa og verda hólpnir. 13.
En það, sem féll í grýtta jørd, merkir þá, sem
heyra mína kénníngu og taka vid henni med føgn-
udi, en vegna þess þeir hafa ekki rætur, trúa
þeir ad eins um stundar sakir, en falla frá á
tímum freistínganna. 14. En það sædid, er
medal þyrna féll, merkir þá, sem heyra mína
kénníngu, en søkum búksorgar og þessa lífs vel-
lystínga kéfjast þeir jafnódt og ná ekki þroska.
15. En það, er féll í góda jørd, merkir þá,

V. 44. *a.* Í heitum løndum, þar sem menn gánga berfættir (eintingis med ilskó) var bod skylda vid gésti, ad þvo fætur þeirra, (1 Mós. 18, 4. Dóm. 19, 21). V. 1—15. Matt. 13, 3—22. Mark. 4, 1—20.

er heyra mína kénníngu, geyma hennar í gódu og sidsømu hjarta og bera ávøxt med stødugljndi.

16. Einginn kveikir ljós og skýlir því med kéri, edur setur þad undir bekk, heldur plaga menn ad setja þad í ljósa=hald, svo þeir sjái til, er inn koma. 17. Valla er nokkur hlutur svo hulinn, ad ekki muni augljós verda, edur svo heimuglegur, ad ekki verdi hann kunnur og komi í ljós; 18. géfid því gaum ad, hvørsu þér hlýdid minni kénníngu, því sá, sem hefir, honum mun géfid verda a); en sá, sem ekki hefir, frá honum mun tekid verda, einnig þad sem hann ætlar sig hafa.

19. Þá var þar komin módir hans og brædur, en gátu ekki nád fundi hans vegna fólksfjøldans; 20. þá var honum sagt, ad módir hans og brædur stædu fyrir dyrum úti og vildu finna hann. 21. Hann mælti: módir mín og brædur mínir eru þeir, sem heyra Guds ord og breyta eptir því.

22. Svo bar vid einhvørn dag, ad hann steig á skip, og Lærisveinar hans; segir hann þá vid þá: látum oss fara yfirum vatnid. 23. Létu þeir þá frá landi; en á leidinni sofnadi hann. Þá kom hvirfil=vindur á vatnid, svo skipid fyllti undir þeim, og voru þeir þá nauduglega staddir; 24. fóru þeir þá og vøktu hann, og søgdu: Meistari! vér førumst. En hann reis upp, hastadi á storminn og sjáfar=ólguna, svo hún sefadist, og gjørdi logn. 25. Sídan sagdi hann vid þá: hvar er nú trú ydar? en þeir urdu hræddir, og undrudust þetta, og søgdu sín á milli: hvørr er þessi, er hann býdur bædi vindi og sjó, og þeir hlýda honum?

26. Sídan lendtu þeir vid hérad Gadaramanna, sem liggur hinumegin gagnvart Galíleu. 27. En er hann steig á land, kom á móti honum madur nokkur úr borginni, sem lángan tíma hafdi verid djøfulódur. Hann klæddist ekki føtum, og var ekki í húsum, heldur í grøfum daudra manna. 28. Þegar hann sá Jesúm, hrein hann, laut honum og sagdi med hárri raustu: hvad høfum vid saman ad sælda, Jesú, Sonur hins ædsta Guds! eg bid þig: kvel þú mig ekki! 29. því Jesús hafdi bodid þeim óhreina anda ad fara út af honum. Í lánga tíma hafdi þessi andi kvalid hann; hann hafdi verid bundinn vidjum og fjøtrum og hafdur í gjætslu, en hann hafdi slitid af sér fjøtrin og hlaupid í djøful=ædi í óbygdir. 30. Þá frétti Jesús hann ad heiti, hann kvadst heita Legíó, því margir djøflar vóru í hann farnir. 31. Sídan bad hann Jesúm ad skipa þeim ekki í undirdjúpid; 32. en af því þar var stór svínahjørd á beit í fjallinu, þá beiddu þeir Jesúm leyfis ad fara í þau, og lét hann þad eptir þeim. 33. Sídan fóru djøflarnir út af manninum, og í svínin, ærdist þá hjørdin, og steypti sér ofan fyrir þver=hnýpi í sjóinn, og drukknadi. 34. Þegar hjard=sveinarnir sáu þetta, flýdu þeir, og søgdu frá því bædi í borginni og þar í bygdarlaginu; 35. fóru þá borgarmenn út ad sjá þennan atburd, og komu til Jesúm. Sat þá madurinn, af hvørjum djøflarnir høfdu útfarid, klæddur og heilvita vid fætur hans, urdu þeir þá felmtursfullir. 36. En þeir, sem vid høfdu verid, søgdu þeim frá, hvørninn hann hefdi ordid heill heilsu sinnar. 37. Bad þá mannfjøldinn úr hérødunum hjá Gadara, ad hann færi burt frá þeim, því þeir

V. 16. Matt. 5, 14. 15. Mark. 4, 21—25. Lúk. 11, 33. 36. V. 17. Matt. 10, 26. V. 18. Matt. 25, 29. 13, 12. Lúk. 19, 26. V. 18. *a.* Þ. e. hann mun upplýsast meir og meir. V. 19—21. Matt. 12, 46—50. Mark. 3, 31—35. V. 22—25. Matt. 8, 23—27. Mark. 4, 35—41. V. 26—39. Mark. 5, 1—20. Matt. 8, 28 — 34.

voru ordnir næsta hræddir. Steig hann nú
á skip og fór aptur yfirum. 38. Beiddist
þá madurinn, frá hvørjum hann hafdi útrekid
djøflana, ad hann mætti vera med honum;
en Jesús lét hann frá sér, og mælti: 39. far
þú til heimilis þíns, og seg þú frá, hvad Gud
hafi gjørt vid þig. Hann fór, og kunngjørdi í
allri borginni, hvad Jesús hafdi honum gjørt.
40. Þegar Jesús kom aptur, tók fólksfjøld-
inn vel vid honum, því allir høfdu vænt hans.
41. Þá kom madur nokkurr, Jaírus ad nafni,
hann var forstødumadur samkunduhússins; hann
féll til fóta Jesú og bad hann koma heim til
sín; 42. því dóttir hans, einbirni, hér um bil
12 vetra, var adkomin dauda. Á veginum
þreyngdist fólkid ad honum, 43. og var þar
kona sú, er haft hafdi blódfall í tólf ár, og
varid allri eigu sinni til læknara, og gat þó
enginn læknad hana. 44. Hún kom ad baki
honum og hrærdi vid faldi klæda hans; stilltist
þá strax blódfall hennar. 45. Þá spurdi Jes-
ús, hvørr hrært hefdi vid sér. Þegar
allir synjudu þess, sagdi Pétur og þeir, sem
med honum voru: Meistari! fólkid þreyngist
og tredst ad þér, og þú spyr, hvørr hafi hrært
vid þér. 46. Jesús mælti: einhvørr hrærdi
vid mér, því eg fann krapt út af mér gánga.
47. Nú er konan sá, ad hún fékk ekki dulist,
kom hún skjálfandi, féll til fóta honum og sagdi
frá, svo allur lýdurinn heyrdi, hvørs vegna hún
hefdi hrært vid honum, samt ad hún hefdi
strax heilbrigd ordid. 48. Þá sagdi hann vid
hana: vertú hughraust, dóttir! trú þín hefir
frelsad þig, far þú í fridi! 49. Nú er hann
var enn þetta ad mæla, kom madur frá heimili
Samkundu-høfdíngjans, er sagdi honum: dótt-
ir þín er látin, ómaka ekki Meistarann. 50.
Þegar Jesús heyrdi þetta, sagdi hann: óttast
þú ekki! trú þú, og mun hún heil verda. 51.
Þegar hann kom í húsid, lét hann enga fara
inn nema Pétur, Jakob og Jóhannes og for-
eldra barnsins; 52. en allir grétu og syrgdu
hana. Hann mælti: grátid ekki! ekki er hún
daud, heldur sefur hún; 53. gjørdu þeir þá
gis ad honum, því þeir vissu ad hún var daud.
54. Sídan rýmdi hann øllum út, tók í hønd
hennar og sagdi: stúlka! stattú upp! 55. lifn-
adi hún þá vid aptur, og reis strax upp;
baud hann þá ad géfa henni mat. 56. Þetta
undrudust foreldrar hennar, en hann bannadi
þeim ad segja nokkrum frá þessum atburdi.

## 9. Kapítuli.

Þeir tólf Lærisveinar eru útsendir; Heródes vill sjá Jesúm; Postularnir koma aptur; Kristur kénnir, læknar, mettar fimm þúsundir manna. Pétur játar Jesúm vera Guds Són. Jesús talar um sína pínu, um sjálfs afneitun og sitt ríki; forklárast á fjalli; læknar túnglsjúkan; segir sína pínu fyrir; talar um audmýkt, og ótilhlýdilegt vandlæti, og um þad, hvørs hans fylgjarar mættu vænta.

1. Sídan kalladi hann þá tólf saman, og
gaf þeim vald og rád yfir øllum djøflum, og
til ad lækna sóttir, 2. og sendi þá til ad boda
lærdóminn um Guds ríki, og til ad græda
sjúka, og mælti: 3. ekkért skulud þér taka med
ydur, hvørki staf edur tøsku, til ferdarinnar, og
ekki braud edur silfur, og ekki tvo kyrtla. 4.
Þegar þér hafid tekid ydur adsetur á einu heim-
ili, þá verid þar til þess þér farid þadan. 5.
En vilji einhvørr ekki veita ydur vidurtøku, þá
farid burt úr þeirri borg og hristid dupt af
fótum ydrum, til vitnis gégn þeim. 6. En
þeir fóru á stad og ferdudust um þorpin, bod-
udu gledibodskapinn, og læknudu allstadar.
7. En sem Fjórdúngshøfdínginn Heródes fékk
ad heyra allt þad, sem Jesús hafdi gjørt, vissi
hann ekki hvad hann átti ad gjøra sér í hugar-

V. 40—56. Matt. 9, 18—26. Mark. 5, 21—43. V. 46. Lúk. 6, 19. V. 52. Jóh. 11, 11. V. 1—6. Matt. 10, 5. ff. Mark. 6, 7—13. V. 7—9. Matt. 14, 1. 2. Mark. 6, 14—16.

lund, því sumir søgdu, ad Jóhannes væri endurlifnadur, 8. adrir ad Elías væri kominn, og sumir, ad einn af þeim gømlu Spámønnum væri risinn upp. 9. Sagdi hann þá: Jóhannes hefi eg látid hálshøggva, en hvørr er þessi, af hvørjum eg heyri þessa hluti? og hann lángadi til ad sjá hann.

10. Þá komu Lærisveinar Jesú, sem hann hafdi sendt frá sér, til baka, og søgdu honum frá, hvad þeir høfdu adhafst; fór hann þá med þeim einslega í eydistad nokkurn hjá borginni Betsaídu; 11. en er fólkid vard þess vart, fylgdi þad eptir honum, og veitti hann því vidurtøku, og kéndi því um Guds ríki, og læknadi þá, er þess þurftu vid. 12. En er degi tók ad halla, komu þeir tólf til hans, og bádu ad hann léti fólkid fara frá sér, svo þad færi í þorpin og landsbygdina þar í kríng, og leitadi sér náttstada og matar, þar þeir væru í óbygdum. 13. Þá sagdi hann vid þá: gefid þér þeim mat. Þeir mæltu: ekki høfum vér nema fimm braud og fiska tvo, nema ef vér egum ad fara og kaupa øllum þessum mannfjølda mat; 14. því þar voru hér um fimm þúsundir manna. Þá segir hann vid Lærisveina sína: látid þér þá setjast nidur í hópa, fimmtíu í hvørjum hóp; 15. þeir gjørdu svo, og létu þá alla setjast nidur. 16. Þá tók hann þau fimm braud og tvo fiska, leit upp til himins, gjørdi Gudi þakkir, braut þau, og fékk þau Lærisveinunum, ad þeir legdu þau fyrir fólkid, 17. møtudust þeir allir og urdu saddir; vóru þá uppteknar leifarnar og vóru þad tólf karfir fullar.

18. Einhvørju sinni, er hann var einnsaman á bæn, og Lærisveinar hans hjá honum, spurdi hann þá, hvørn fólkid áliti hann ad vera. 19. Þeir søgdu: sumir ætla, ad þú sért Jóhannes Skírari, adrir Elías, og sumir ad einn af þeim gømlu Spámønnum sé upprisinn. 20. Þá sagdi hann: en hvørt ætlid þér eg sé? Pétur mælti: vér ætlum, ad þú sért Kristur Guds. 21. Þá lagdi hann ríkt á vid þá, ad þeir ekki segdu nokkrum frá því, 22. því mannsins Sonur — sagdi hann — á margt ad lída, verda útskúfadur af Øldúngunum og þeim ædstu Prestum og enum Skriftlærdu, líflátast, en upprísa á þridja degi. 23. Sídan sagdi hann til þeirra allra: hvørr, sem vill fylgja mér, afneiti sjálfum sér, taki á sig sinn kross hvørs daglega, og fylgi mér eptir; 24. því hvørr, sem vill fá borgid lífi sínu, mun týna því; og hvørr, sem lætur líf sitt mín vegna, hann mun frelsa þad; 25. því ad hvørju gagni kjæmi þad, þótt madur eignadist allan heiminn, en týndi sjálfum sér, og skadadi sig? 26. Því hvørr, sem lætur sér minkun þykja ad mér og minni kénníngu, ad þeim mun og Mannsins Syni minkun þykja, þegar hann kémur med vegsemd sinni og Fødur síns og helgum englum. 27. En eg segi ydur: ad nokkrir af þeim, sem hér eru nú vidstaddir, munu ekki deya fyrr enn þeir sjá Guds ríki.

28. Hér um átta døgum eptir ad hann taladi þetta, tók hann med sér Pétur, Jóhannes og Jakob, og fór uppá fjall nokkurt til ad gjøra bæn sína. 29. Þá skédi þad, er hann var á bæninni, ad yfirlitur hans umbreyttist, og klædi hans urdu ljómandi hvít. 30. Þar birtust tveir menn í ljóma, er tøludu vid hann; 31. voru þad þeir Móses og Elías, tøludu þeir um hans tilkomanda líflát í Jerúsalem. 32. En Petur og þeir, sem med honum voru, voru yfirkomnir af svefni; og er þeir vøknudu, sáu þeir ljómann af honum, og þá tvo menn, er hjá honum voru. 33. En þeg-

V. 10. ff. Matt. 14, 13—20. Mark. 6, 32—44. Jóh. 6, 1—15. V. 18. ff. Matt. 16, 13—28. Mark. 8, 27—3[illegible]. V. 28. Matt. 17, 1—9. Mark. 9, 1—8.

ar þeir skildust vid hann, mælti Pétur vid Jesúm: gott er oss hér ad vera, Meistari! látum oss slá hér þremur tjøldum, einu handa þér, ødru handa Mósi, og enu þridja handa Elíasi, því ekki vissi hann, hvad hann sagdi. 34. En er hann var þetta ad mæla, kom ský og skygdi yfir þá, urdu þeir hræddir, er þeir komu inn í skýid; 35. kom þá rødd úr skýinu, er sagdi: þessi er Sonur minn elskulegur, hlýdid þér honum. 36. En í því røddin kom, fundu þeir Jesúm einan. Um þetta þøgdu þeir, og søgdu á þeim døgum engum frá, hvad þeir høfdu sjed.

37. Deginum eptir, er þeir fóru nidur af fjallinu, kom mikill fjøldi fólks á móti honum, 38. kalladi þá madur nokkurr úr flokkinum og sagdi: Meistari! eg bid þig, lít þú nádarsamlega til sonar míns, því hann er einka barn mitt. 39. Því sjá, þegar andinn hrífur hann, hrín hann strax upp, og teygist sundur og saman med frodufalli, og valla víkur andinn frá honum, þá hann tekur til ad kvelja hann. 40. Eg bad lærisveina þína, ad þeir rækju hann út, en þeir gátu þad ekki. 41. Þá mælti Jesús: þú trúarlausa og rángsnúna þjód! hvørsu lengi skal eg vera med ydur og umbera ydur; fær þú híngad son þinn! 42. En er hann kom, hreif hinn illi andi hann og teygdi hann sundur og saman. Hastadi þá Jesús á hinn óhreina anda og læknadi sveininn og gaf hann aptur fødur sínum; 43. en allir undrudust Guds mikla mátt.

En er allir vóru nú ad furda sig yfir øllu því, sem Jesús gjørdi, tók hann svo til orda, vid Lærisveina sína: 44. takid eptir þessum ordum: Mannsins Sonur á ad ofurseljast í manna hendur. 45. En þeir skildu þad ekki, og þad var svo hulid fyrir þeim, ad þeir skynjudu þad ekki, en þordu þó ekki ad spyrja hann ad, hvad hann meinti med því.

46. Einhvørju sinni kom þræta medal þeirra um þad, hvørr þeirra mestur væri. 47. En er Jesús vard var vid þeirra hugrenníngar, tók hann barn eitt og setti þad hjá sér, 48. og sagdi vid þá: hvørr, sem veitir þessu barni vidurtøku mín vegna, þad er sem veitti hann mér vidurtøku, en hvørr hann veitir mér vidurtøku, hann veitir og þeim vidurtøku sem mig sendi; því sá af ydur, sem lætur minnst yfir sér, hann mun mikill verda. 49. Þá sagdi Jóhannes: Meistari! vér sáum mann nokkurn, sem í þínu nafni rak út djøfla, og vér bønnudum honum þad, þar hann ekki var af vorum flokki. 50. Jesús mælti: bannid þad ekki, því sá, sem ekki er mót ydur, hann er med ydur.

51. Nú er leid ad hans upphafníngar a) tíma, héldt hann til Jerúsalem, og sendi menn undan sér; 52. þeir fóru og komu í þorp nokkurt samverskt til ad fala honum þar gistíng; 53. en bæar-menn vildu ekki vid honum taka, af því hann ætladi til Jerúsalem. 54. En er Lærisveinar hans, Jakob og Jóhannes, urdu þess vísir, søgdu þeir: viltú, Herra! ad vér bjódum eldi ad falla af himni og tortýna þeim, eins og Elías gjørdi. 55. Þá snérist hann vid, ávítadi þá og sagdi: vitid þér ekki hvørs anda b) þér erud? 56. Ekki er Mannsins Sonur kominn til ad tortýna lífi manna, heldur til ad frelsa þad. Sídan fóru þeir í annad þorp.

57. Svo bar vid á veginum, ad madur nokkur sagdi til hans: eg vil fylgja þér, Herra! hvørt sem þú fer. 58. Jesús mælti: refar hafa greni og fuglar skýli, en Mannsins Sonur hefir hvørgi høfdi sínu ad ad halla. 59. Vid annan sagdi hann: fylg þú mér! hann mælti:

---

V. 37—43. Matt. 17, 14—21. Mark. 9, 14—29. V. 43. Matt. 17, 22. 23. Mark. 9, 30—32. Sbr. Lúk. 18, 31—34. V. 46—50. Matt. 18, 1—5. Mark. 9, 33—40 V. 51. *a.* Þ. e. uppstigníngar. V. 54. 2 Kóng. 1, 10. ff. V. 55. *b.* Elias var strángur, en þad hugarfar, sem Jesús innprentadi, var umburdarlyndi.

leyf mér fyrst, Herra! ad fara og grafa fødur
minn. 60. Jesús sagdi: lát þá daudu grafa
sína daudu, en far þú og flyt lærdóminn um
Guds ríki. 61. Enn nú annar sagdi: eg vil
fylgja þér, Herra! en leyf mér fyrst ad fara
og kvedja heimilis-fólk mitt. 62. Jesús mælti:
enginn sá, sem leggur hønd á plóginn og snýr
til baka, er hæfur til Guds ríkis.

## 10. Kapítuli.

*Jesús sendir út ena sjøtíu Lærisveina; þeir koma aptur gladir af makt yfir øndum; en hann bendir þeim til annars gledi efnis; vegsamar sinn Fødur; segir dæmisøgu um Samarítann og Levítann; hrósar Maríu framyfir Mortu.*

1. Eptir þetta útvaldi Drottinn og svo adra
sjøtíu, og sendi þá undan sér tvo og tvo í allar
þær borgir og stadi, sem hann hafdi ásett sér
ad koma, 2. og taladi til þeirra svofeldum ord-
um: korn-skéran er mikil, en verka-mennirnir
fáir; bidjid því eiganda akursins, ad hann sendi
verkamenn til kornskurdar síns. 3. Farid þér,
eg sendi ydur eins og lømb á medal úlfa. 4.
Takid hvørki med ydur fégirdil edur tøsku, og
ekki skó, heilsíd eingum á vegi ydrum; 5. nær
þér komid inn í nokkurt hús, þá segid fyrst: frid-
ur sé þessu húsi! 6. og sé þar nokkurr inni góds
verdur, munu ydar gódu óskir hvíla á honum;
en ef ekki, munu ydar gódu óskir hverfa til yd-
ar aptur. 7. Verid kyrrir í enu sama herbergi,
etid og drekkid þad, sem ydur verdur bodid, því
verdur er verkamadurinn launanna; ekki skulud
þér flytja úr einu húsi í annad. 8. Nær þér
komid í bæ nokkurn, og bæar-menn veita ydur
vidurtøku, þá neytid þess, er fyrir ydur fram-
reidt verdur; 9. læknid þá, sem þar eru sjúk-
ir, og kunngjørid þeim, ad Guds ríki sé í nánd.
10. En ef þér komid í þann bæ, hvar menn
ekki vilja veita ydur vidurtøku, þá farid út á stræt-
in, og mælid svo: 11. duptid, sem lodir á oss
úr ydvarri borg, hristum vér af oss á ydur, vit-
id samt þad, ad Guds ríki er í nánd. 12.
Trúid mér, ad bærilegra mun verda straff Só-
dómu á degi dómsins, en þeirrar borgar. 13.
Vei þér, Kórasín! vei þér, Betsaída! ef þau
kraptaverk, sem framin hafa verid í ykkur,
hefdu gjørd verid í Týrus edur Sídon, mundu
þeir fyrir laungu hafa sjed ad sér og klædst
hrygdar búníngi; 14. en bærilegri munu verda
kjør Týrusar og Sídónar á degi dómsins, en ykk-
ar. 15. Og þú, Kapernaum, sem nú mænir
vid himin, þér mun til vítis nidursøkkt verda.
16. Sá, sem hlýdir ydur, þad er sem hann
hlýddi mér, og hvørr hann fyrirlítur ydur, þad
er sem hann fyrirliti mig; en hvørr hann fyr-
irlítur mig, fyrirlítur þann mig sendi.

17. En þá þeir sjøtíu komu til baka, voru
þeir nærsta gladir, og søgdu: Herra! einnig
íllir andar hlýddu oss, nær vér skipudum þeim
í þínu nafni. 18. Jesús mælti vid þá: eg sá
Satan falla af himni eins og eldíngu. 19.
Sjá! eg géf ydur vald til ad fót-troda høgg-
orma og sporð-dreka og allt óvinarins veldi,
og ekkért a) skal ydur granda. 20. En gled-
jist samt ekki yfir því, ad íllir andar hlýda
ydur, heldur yfir því, ad nøfn ydar eru skrif-
ud á himnum. 21. Vid þetta tækifæri vard
Jesús gladur í anda, og tók svo til orda: eg
þakka þér, Fadir! Herra himins og jardar, ad
þú hefir látid þetta hulid fyrir fródum mønn-
um og spekíngum, en hefir auglýst þad fáfród-
um. Ad vísu hefir þér, Fadir! þannig þókn-
ast ad vera skyldi. 22. Allt er mér í vald
géfid af mínum Fødur, og enginn veit hvørr
Sonurinn sé, nema Fadirinn, edur hvørr Fad-

V. 62. Utbreidsla kristninnar krefur, ad menn hafi ekki hugan á ødru. V. 2. Matt. 9. 37. V. 3. Matt. 10, 16. V. 4. Matt. 10, 10—15. Mark. 6, 8—12. V. 13. Matt. 11, 20—24. V. 16. sbr. Matt. 10, 40. V. 19. *a*. Salm. 91, 13. V. 21—22. Matt. 11, 25—27.

irinn sé, nema Sonurinn og sá, sem Sonurinn
vill það auglýsa. 23. Þá snéri hann sér til
Lærisveina sinna, og sagdi vid þá einslega: sæl
eru þau augu, sem sjá hvad þér sjáid; 24. því
eg segi ydur, ad margir Spámenn og Konúng-
ar hafa viljad sjá það, sem þér sjáid, en sáu
það ekki, og heyra það, sem þér heyrid og
heyrdu það ekki.

25. Nú stód upp Skriftlærdur madur nokkurr,
vildi freista hans, og tók svo til orda: Meist-
ari! hvørninn á eg ad breyta, svo ad eg eign-
ist eilíft líf? 26. Hann mælti: hvad er skrif-
ad í Løgmáls-bókinni? hvørninn les þú? 27.
Hann mælti: elska skaltú Drottinn Gud þinn
af øllu hjarta, af allri sálu, af øllum kroptum
og øllum huga, og náúnga þinn eins og sjálf-
an þig. 28. Hann mælti: þú svaradir rétt,
breyt þú svo, og mun þér vel vegna. 29. En
þareð hann vildi réttlæta sjálfan sig a), spurdi
hann Jesúm aptur: hvørr er þá minn náúngi?
30. Jesús mælti: madur nokkurr ferdadist frá
Jerúsalem til Jerikó og féll í hendur ræn-
íngja, sem flettu hann klædum, veittu honum
áverka, fóru sídan burtu og létu hann eptir
daudvona. 31. Svo bar til, ad Prestur nokk-
urr fór þenna sama veg, og er hann sá hann,
gékk hann framhjá; 32. eins Levítinn, þegar
hann kom til þess stadar og sá hann, gékk hann
einninn framhjá. 33. En samverskur madur
nokkurr, er fór um farinn veg, kom þar ad
og er hann sá hann, kéndi hann í brjósti um
hann, 34. kom og batt sár hans, og hellti í
þau vidsmjøri og víni, setti hann sídan uppá
sinn eiginn eyk, og flutti hann til géstgjafa húss,
og lét sér hugarhaldid um hann. 35. Degi
sídar, er hann var ferdbúinn, tók hann upp tvo
peninga, fékk géstgjafanum og mælti: al þú
ønn fyrir honum, og það, sem þú kostar meiru
til, skal eg borga þér, þegar eg kém aptur.
36. Hvørr af þessum þremur sýnist þér vera
náúngi þess sem féll í hendur reyfurunum?
hann mælti: sá, sem miskunar verkid gjørdi á
honum. 37. Jesús mælti: far þú og gjør
hid sama.

38. Nú bar svo vid, er þeir voru á ferd,
ad hann kom í þorp nokkurt; þar var kona,
ad nafni Marta, sem veitti honum gistíngu;
39. hún átti systur, er María hét, hún sat til
fóta Jesú og hlýddi hans kénníngu. 40. En
Marta hafdi mikil umsvif med ad standa þeim
fyrir beina; gékk hún þá til hans og tók svo
til orda: hirdir þú ekki um það, Herra! ad
systir mín lætur mig eina gánga um beina?
seig þú henni ad hjálpa mér. 41. Jesús svar-
adi henni: Marta! Marta! þú hefir mikla á-
hyggju og umsvif fyrir mørgu, en á einu ríd-
ur mest. 42. María hefir valid sér hid góda
hlutskiptid b), og það mun ekki frá henni takast.

## 11. Kapituli.

*Jesús kénnir sínum Lærisveinum ad bidja; rekur djøful út, og hrindir lastmælum hinna Skript-lærdu; etur med Fariseum og ávítar þá og hina Loglærdu.*

1. Eitt sinn bar svo vid, ad hann var á
bæn sinni einhvørstadar; en er hann hafdi lokid
bænagjørdinni, sagdi einn af Lærisveinum hans
vid hann: kénn þú oss, Herra! ad bidja, eins
og Jóhannes kéndi sínum Lærisveinum. 2. Þá
sagdi hann vid þá: nær þér gjørid bæn ydar,
þá bidjid á þessa leid: Fadir vor! helgist þitt
nafn, tilkomi þitt ríki; 3. géf oss hvørn dag
vort daglegt braud; 4. fyrirgéf oss vorar mis-
gjørdir, því vér fyrirgéfum og þeim, sem vid

V. 23—24. Matt. 13, 16. 17. V. 25. ff. Matt. 22, 35—39. V. 27. ff. 5 Mós. 6, 5. 3 Mós. 19, 18.
V. 29. *a.* Þ. e. sýna, ad hann hefdi ei spurt óþarflega. Gydíngar álitu ei adra enn landsmenn sína fyrir náúnga.
V. 42. *b.* Nl. það, ad sjá fyrir sálu sinni. V. 2—4. Matt. 6, 9—15.

oss hafa misgjørt; leid oss ekki í freistni. 5.
Framvegis sagdi hann: ef þar er einhvørr af
ydur, sem á vin, og fer til hans um midnætti
og segir vid hann: vinur! lánadu mér þrjú
braud; 6. því vinur minn er kominn til mín
úr ferd sinni, og eg hefi ekkért ad bjóda hon=
um; 7. og sá, sem inni er, svarar: gjørdu mér
ekki ónædi, dyr eru lokadar, og børn mín eru
ásamt mér gengin til hvílu; eg gét þess vegna
ekki farid á fætur til ad fá þér þau. 8. Trú=
id mér, ef hann ekki fer á fætur ad lána hon=
um þau fyrir þeirra vinskapar skuld, þá mun
hann samt fara á fætur vegna þrábeidni hans,
og fá honum svo mikid, sem hann vidþarf.
9. Þar fyrir segi eg ydur: bidjid og mun
ydur géfast; leitid og munud þér finna; kný=
id á og mun fyrir ydur upplokid verda; 10.
því sá fær, sem bidur, sá finnur, sem leitar,
og fyrir þeim, sem áknýr, mun upplokid verda.
11. Ef sonur einhvørs ydar á medal beiddi
fødur sinn um braud, hvørt mundi hann géfa
honum stein? og ef hann bædi um fisk, mundi
hann þá géfa honum snák í stadinn fyrir fisk?
12. edur bædi hann um egg, mundi hann þá géfa
honum høggorm? 13. Ef nú þér, sem vond=
ir erud, tímid ad géfa børnum ydar gódar
gjafir, hvad miklu framar mun þá ekki Fadir
ydar á himnum géfa þeim heilagan Anda, sem
þess beidast.

14. Þar eptir rak hann út djøful þann, er
mállaus var, og er djøfullinn var útfarinn,
tók sá, er mállaus var, ad mæla. 15. Þetta
undradist fólkid, en sumir søgdu, ad hann ræki
djøfla út med fulltíngi djøfla = høfdíngjans
Belsebúls; 16. adrir vildu freista hans og
krøfdust af honum teikns af himni; 17. en
hann, er vissi hvad þeir hugsudu, tók svo til
orda: hvørt þad ríki, hvar innbyrdis sundur=
þykki er, mun leggjast í audn, og hvørt hús mun
þar yfir annad hrapa. 18. Ef nú Satan
er sjálfum sér sundurþykkur, hvørninn fær
hans ríki þá stadist? þar þér segid eg útreki
djøfla fyrir fulltíngi Belsebúls. 19. En ef eg
útrek djøfla med fulltíngi Belsebúls, fyrir hvørs
fulltíngi útreka þá ydrir Lærisveinar þá? þess
vegna skulu þeir og vera ydrir dómendur. 20.
En ef eg rek djøfla út med Guds krapti, þá
er Guds ríki þegar til ydar komid. 21. Nær
ein vopnud hetja vardveitir sitt andyri, er allt
í fridi, sem hún á; 22. en komi annar yfir=
sterkari og sigri hann, flettir hann hann her=
tygjum sínum, er hann treysti á, og skiptir
herfánginu. 23. Hvørr, sem ekki er med mér,
hann er á móti mér; og hvørr, sem ekki sam=
ansafnar med mér, hann sundurdreifir. 24.
Þegar óhreinn andi fer út af manni, ráfar
hann um vatnslausar eydimerkur, leitar hælis,
og nær hann ekki finnur þad, þá segir hann
vid sjálfan sig: eg vil hverfa aptur í hús mitt,
hvadan eg fór, 25. og er hann kémur, finn=
ur hann þad sópad og prýdt. 26. Þá fer
hann og tekur med sér adra sjø anda sér verri,
og er þeir eru innkomnir, byggja þeir þar;
verdur svo þad sídara ásigkomulag mannsins,
verra enn hid fyrra. 27. Þegar hann mælti
þetta, hóf kona nokkur medal fólksins upp raust
sína, og sagdi: sæll er sá kvidur er þig bar,
og þau brjóst, er þú mylktir. 28. En hann
sagdi: já, ad vísu! sælir eru þeir, sem heyra
Guds ord og gjæta þess. 29. Þegar fólkid
þyrptist ad honum, tók hann svo til orda: þessi
þjód er vond, hún krefst teikns; en henni skal
ekkért teikn verda géfid, nema teikn Jónasar;
30. því eins og Jónas var Níníve borgar

V. 9—13. Matt. 7, 7. Sbr. Lúk. 18, 1—7. V. 14—22. Matt. 12, 22—30. Mark. 3, 22—27. V. 23. Matt. 12, 30. Mark. 9, 40. V. 24—26. Matt. 12, 43—45. V. 29—32. Matt. 12, 38—42.

mønnum teikn, eins mun og Mannsins Sonur
verda þjód þessari. 31. Drottníngin úr sudur=
átt mun rísa upp, þegar dómurinn fellur gégn
þessari þjód, og sýna hana straffs seka, því
hún kom af fjarlægu landi ad heyra speki
Salómons; en gjætid þess, ad hér er sá, sem
Salómóni er meiri. 32. Niníve borgar menn
munu rísa upp, þegar dómurinn fellur gégn
þessari þjód, og sýna hana straffs seka, því
þeir bættu rád sitt vid kénníngu Jónasar, en
sjáid! hér er sá, sem Jónasi er meiri. 33.
Enginn kveikir ljós og setur þad í skot edur
undir mæli=kér, heldur í ljósahald, svo þeir,
sem inn koma, njóti birtu þess. 34. Augad
er ljós líkamans; nýtur því, ef auga þitt er
heilskygnt, allur þinn líkami birtu; en sé þad
gallad, er líkami þinn í myrkri; 35. gjæt þú
þar fyrir þess, ad þitt innra ljós verdi ekki
ad myrkri. 36. Sé því líkami þinn allur
upplýstur, svo hvørgi beri skugga á, þá nýtur
hann allur birtunnar, eins og þegar ljósid
lýsir med birtu sinni.

37. Þegar hann var þetta ad mæla, baud
einhvørr af Faríseum honum til matar. Hann
fór og settist undir bord. 38. Þegar Faríse=
inn sá þad, undradist hann, ad Jesús tók ekki
handlaugar, ádur en hann tók til matar. 39.
Þá sagdi Drottinn vid hann: þér Faríseear
plagid ad láta þvo kér ydar og bikara utan, en
ydvart hid innra er fullt med rán og vondsku.
40. Þér, heimskíngjar! sá, sem hefir hreinsad
hid ytra, mun hann þar fyrir hafa hreinsad hid
innra? 41. en þegar þér géfid ølmusur af því,
sem þar er, þá haldid þér, ad allt sé ydur hreint.
42. En vei ydur Faríseum, sem tíundid myntu
og rúdu og allar matjurtir, en hirdid hvørki um
réttvísi né elskuna til Guds; þitt byrjar ad vísu
ad gjøra, en þetta ekki ógjørt ad láta. 43.
Vei ydur, þér Faríseear! sem keppist eptir efstu
sætum í samkundu=húsum, og ad ydur sé heils=
ad á mannamótum. 44. Vei ydur, því eins erud
þér og grafir daudra manna, sem ekki ber á, yfir
hvørjar menn gánga án þess ad vita þad. 45.
Þá tók einn af þeim Skriftlærdu svo til orda:
Meistari! þú stíngur oss einnig sneid med þessu;
46. en hann mælti: vei ydur líka, þér Skrift=
lærdir! þér bindid mønnum lítt bærar byrdar,
en sjálfir snertid þér þær ekki med einum fíng=
ri. 47. Vei ydur, sem byggid upp grafir
Spámannanna, sem fedur ydar líflétu; 48. þann=
ig hrósid þér og samþykkid athøfnum fedra yd=
varra, er þér uppbyggid grafir þeirra, sem þeir
drápu. 49. Fyrir því segir og speki Guds:
„eg mun senda þeim Spámenn og Postula,
suma af þeim munu þeir ráda af døgum og
adra ofsækja, 50. svo ad af þessari kynslód
krafid verdi blód allra Spámanna, er úthellt
hefir verid frá heims upphafi, 51. frá því Abel
var drepinn til lífláts Sakkaríasar, sem drep=
inn var millum musteris og altaris. Eg segi
ydur satt, ad þessi þjód mun fá makleg mála=
gjøld fyrir øll þessi manndráp. 52. Vei yd=
ur, þér skriftlærdir! sem hafid hripsad til ydar
lykil vitskunnar, en sjálfir farid þér þar ekki
inn, og fyrirmunid ødrum inngaungu. 53.
Þegar hann hafdi svo mælt, tóku hinir Skrift=
lærdu og Faríseear þínglega ad reidast honum
og lokka af honum andsvør um ýmislegt, 54.
sitja um hann og leitast vid ad veida eitthvad
af munni hans, er þeir gjæti sakfellt hann fyrir.

## 12. Kapítuli.

*Jesús varar vid súrdeigi Faríseanna, og vid því, ad hrædast menn, vill ekki skipta arfi; varar vid á=*

V. 31. 1 Kóng. 10, 1. V. 32. Jón. 3, 5. V. 33—36. Lúk. 8, 16. Matt. 5, 15. 6, 22. 23. V. 39—41. Matt. 23, 25. 26. V. 42. Matt. 23, 23. V. 43. Matt. 23, 6. 7. V. 44 Matt. 23, 26. V. 46. Matt. 23, 4. V. 47—51. Matt. 23, 29—36. V. 51. 1 Mós. 4, 8. V. 52. Matt. 23, 14.

girni og búksorg; hvetur til árvekni og trúskapar; talar um hormúngar fyrir hans lærdóms skuld, og um adgjætslu tídarinnar.

1. Þegar svo margar þúsundir voru samankomnar, ad nærstum tród hvørr annan undir, hóf hann svo tal sitt vid Lærisveina sína: varist fyrst og fremst súrdeig Faríseanna, þad er, hræsnina; 2. ekkért er svo dulid, ad ekki verdi opinbert, og ekkért svo leynt, ad ekki verdi kunnugt; 3. því mun hvad eina, sem þér talid í leyni, koma í hámæli, og hvørju þér hvíslid í launkofum, þad mun kunngjørt verda á þøkum uppi. 4. Þad segi eg ydur vinum mínum: hrædist ekki þá, sem aflífa líkamann, og fá ekki meira adgjørt; 5. en eg skal sýna ydur, hvørn þér egid ad hrædast: hrædist hann, sem eptir ad hann hefir líflátid, hefir vald til ad kasta ydur í helvíti; já, þad áminni eg ydur um, hann egid þér ad hrædast. 6. Seljast ekki fimm titlíngar fyrir tvo smá-peninga, og þó gleymir Gud engum af þeim, 7. og enn fremur: øll ydar høfud hár eru talin; verid því ekki hræddir, meira eru þér verdir en margir titlíngar. 8. Eg segi ydur þad, ad hvørr, sem vidurkénnir fyrir mønnum, ad hann sé minn Lærisveinn, hann mun og Mannsins Sonur vidurkénna sinn ad vera í vidurvist engla Guds; 9. en hvørr, sem ekki vill kannast vid mig fyrir mønnum, vid hann mun heldur ekki verda kannast fyrir Englum Guds. 10. Hvør sem lastar Mannsins Son, honum kann ad verda þad fyrirgéfid; en sá, sem íllmælir heiløgum Anda, hefir ekki fyrirgéfníngar ad vænta. 11. Þegar þeir færa ydur í samkundu-hús sín og fyrir høfdíngja sína og valdsmenn, verid þá ekki hugsjúkir, hvørnig þér egid ad forsvara ydur, edur hvad þér egid ad tala, 12. því heilagur Andi mun kénna ydur á sømu stundu, hvad þér egid ad segja.

13. Þá sagdi einn af fólkinu vid hann: Meistari! skipadu bródur mínum, ad hann skipti med mér arfi okkar. 14. Þessum svaradi hann: þú madur! hvør hefir sett mig fyrir dómara edur arfskiptamann á milli ykkar? 15. Framvegis sagdi hann til þeirra: gjætid ydar, og varid ydur vid ágirni, því einginn verdur sælli fyrir þad, þó hann hafi aud fjár. 16. Þá sagdi hann þeim dæmisøgu þessa: þad var madur nokkur audugur, hvørs akur hafdi borid honum mikinn ávøxt; 17. þá hugsadi hann med sér: hvad skal eg nú gjøra? eg hefi ekki, hvar eg géti samansafnad ávøxtum mínum —, 18. sagdi hann þá vid sjálfan sig — þetta skal eg gjøra, rífa nidur hlødur mínar og byggja adrar stærri, þángad vil eg safna øllum ávøxtum mínum og audæfum; 19. og þá vil eg segja vid sjálfan mig: þú hefir feingid mikinn aud, og ert byrgur í mørg ár, hvíl þú þig nú, et þú og drekk og ver þú gladur! 20. En Gud sagdi vid hann: dári! í nótt mun líf þitt verda frá þér tekid, og hvørs verdur þá þad þú hefir safnad? 21. Svo fer þeim, er sér safnar fé, án þess ad vera í Gudi ríkur. 22. En vid Lærisveina sína sagdi hann: þar fyrir segi eg ydur ad vera ekki hugsjúkum fyri lífi ydru, hvad þér skulud hafa til fædu; ekki heldur fyrir líkama ydrum, hvørju þér skulud klædast; 23. lífid er meira verdt en fædan, og líkaminn meir en klædnadurinn. 24. Gjætid ad hrøfnunum, þeir sá hvørki né uppskéra, og ekki hafa þeir kornhlødur né forda búr, samt fædir Gud þá; hvad miklu erud þér ekki fuglunum ágjætari? 25. hvør af ydur gétur med allri sinni áhyggju aukid hæd sína

V. 1. Matt. 16, 6. Mark. 8, 15. V. 2. Lúk. 8, 17. Matt. 10, 26. 27. V. 4—9. Matt. 10, 28—33. V. 10. Matt. 12, 32. Mark. 3, 28—30. V. 11. Matt. 16, 17—23. V. 22—31. Matt. 6, 25—33.

um eina alin, 26. og ef þér ekki gétid komid
því til leidar, sem minnst er ívarid, hví erud
þér þá áhyggjufullir um hitt annad? 27.
Skodid liljugrøs þessi, hvørnig þau vaxa,
hvørki vinna þau né spinna; en trúid mér:
ad Salómon í øllu sínu skrauti var ekki svo
fagurlega búinn, sem eitt af þeim. 28. Ef ad
Gud skrýdir svo grasid, sem í dag vex á akrin-
um og á morgun verdur í ofn kastad, hvørsu
miklu framar mun hann ekki klæda ydur?
þér trúarveikir! 29. Ekki skulud þér held-
ur spyrja um, hvad þér skulud hafa til
matar edur drykkjar, og hugsíd ekki hátt a);
30. fyrir slíku bera heidnir menn áhyggju
en Fadir ydar veit ad þér þurfid þessa
vid. 31. Kappkostid heldur ad ødlast
Guds ríki, þá munud þér fá allt þetta í
vidbót. 32. Vertú ekki hrædd, mín litla hjørd!!
því Fødur ydar hefir þóknast ad géfa ydur sitt
ríki; 33. seljid eigur ydar og géfid fátækum,
safnid ydur fjársjódum, sem ekki fyrnast, fjár-
sjódi á himni, sem aldrei þverrar, hvørn þjóf-
ar ekki géta nálgast eda mølur skémt; 34. því
hvar ydar fjársjódur er, þar er ydar hjarta.
35. Ydar lendar séu girdtar, og ljós ydar
logandi, 36. svo ad þér líkist þeim mønnum,
er vænta húsbónda síns, nær hann muni koma
frá veitslu, svo nær hann kémur og ber ad
dyrum, ad þeir þá strax ljúki upp fyrir hon-
um. 37. Sælir eru þeir þjónar, hvørja húss-
bóndinn finnur vakandi, þá hann kémur. Trú-
id mér: hann mun binda belti um sig, setja
þeim bord og veita þeim sjálfur beina. 38.
Finni hann þá svo, hvørt sem hann kémur um
adra edur þridju eikt nætur, þá er þeim vel
farid; 39. því vitid þad, ef húsbóndinn vissi
á hvørjum tíma þjófurinn mundi koma, þá vekti
hann og léti ekki rjúfa hús sitt. 40. Verid
þar fyrir reidubúnir, því Mannsins Sonur mun
koma á þeirri stundu, sem þér ekki ætlid. 41.
Þá spurdi Pétur: Meistari! hvørt meinar þú
oss med þessari dæmisøgu, edur alla? 42.
Jesús mælti: hvørr er sá dyggi og forsjáli ráds-
madur, hvørn húsbóndi hans hefir sett yfir hjú
sín til ad úthluta þeim í réttann tíma þeirra skamt,
43. ad hann egi ekki von á umbun, ef húsbóndi
hans finnur hann svo breyta, nær hann kém-
ur. 44. Eg segi ydur satt: ad hann mun
setja hann yfir allar eigur sínar; 45. en ef
þjóninn hugsar svo med sér: húsbóndi minn
mun ekki koma svo brádum; og tekur ad berja
þjónustumenn og ambáttir, og lifa í óhófi til
matar og drykkjar; 46. þá mun húsbóndi þess
þjóns koma á þeim degi, sem hann ekki ætladi
og á þeirri stundu, sem hann ekki vardi; straffa
hann þúnglega b), og gjøra hlut hans jafnann
ótrúrra þjóna. 47. Því sá þjón, sem veit vil-
ja húsbónda síns og hirdir ekki um ad hlýda
honum, mun sæta þúngu straffi; 48. en sá,
sem óvitandi gjørir þad, sem straffs er verdt,
mun sæta vægri hegníngu; en hvørjum, sem
mikid er géfid, af honum mun og mikils kraf-
ist verda, og þeim, sem mikid er í hendur selt,
af honum verdur og meira heimtad. 49. Eg
er kominn ad senda eld c) á jørdu; og hvad
segi eg? hann er þegar kveiktur, 50. en eg hefi
skírn d) ad skírast, og hvørsu þúngt er mér í
skapi til þess henni er lokid. 51. Hvørt ætl-
id þér, ad eg sé kominn til ad senda frid á
jørdu? ekki þad, heldur ósamlyndi. 52. Upp
frá þessu munu fimm vera í einu húsi, allir
sundurþykkir; þrír á móti tveimur, og tveir á

V. 29, *a.* þ. e. óskid ydur ekki mikils af jardneskum gjædum V. 33—34. Matt. 6. 19—21. V. 35. ff. Sbr. Matt. 25, 1 ff. V. 39—46. Matt. 24, 43—51. V. 46. *b.* Ord textans þýdir, ad hluta í tvent, sem brúkad var vid verstu ódáda menn, Dan. 2, 5. 3, 29, sbr. Dóm. 19, 29. V. 49. *c.* Ofrid, Matt. 10, 34. V. 50. *d.* Fyrir mér liggja þúngar þrautir. V. 51—53. Matt. 10, 34—36.

móti þremur. 53. Fadirinn mun hefja fjand-
skap móti syni sínum, og sonurinn gégn fødurn-
um, módirin gégn dótturinni, og dóttirin gégn
módurinni, módir konu manns móti sonarkonu
sinni, og sonarkonan gégn módur mannsins. 54.
Enn taladi hann þannig til fólksins: nær þér sjáid
ský draga upp í véstri, segid þér jafnskjótt, ad regn
muni koma, og þad gengst eptir, 55. og þegar
sunnanvindur blæs, þá segid þér, ad hiti muni
verda, og þad skédur. 56. Þér hræsnarar! þér
hafid vit á ad taka eptir útliti lopts og jardar;
hví hafid þér þá ekki vit á ad géfa gaum ad
þessum tíma? 57. og hví dæmid þér ekki af
sjálfum ydur a), hvad rétt sé? 58. Þegar þú
fer med mótstødumanni þinum til dómarans,
þá kostadu á veginum kapps um ad sættast vid
hann, svo ekki dragi hann þig fyrir dómar-
ann, og dómarinn afhendi þig fángaverdinum,
og fángavørdurinn kasti þér í dýblissu. 59.
Trú þú mér! ekki muntú þadan útkomast, fyrr
en þú hefir borgad þann sídasta pening.

## 13. Kapítuli.

Af lífláti nokkurra Galíleiskra tekur Jesús sér tilefni til ad áminna til betrunar; dæmisagan um fíkjutréd; Jesús læknar kreppta konu; framsetur dæmisøgurna um mustards kornid og súrdeigid; talar um útskúfun margra, en inntøku heidíngja í Krists ríki; hrædist ekki Heródes; ávítar Jerúsalem.

1. Um þessar mundir komu nokkrir til hans,
er søgdu honum frá þeim galíleisku, hvørra
blódi Pílatus hafdi blandad vid fórnir þeirra.
2. Jesús mælti til þeirra: haldid þér ad þess-
ir Galílear hafi verid verri menn, en allir adr-
ir í Galíleu fyrir þad, ad þeir lidu þetta? 3.
alls ekki! en trúid mér, nema þér bætid rád
ydar, munud þér allir eins fyrirfarast; 4. ed-
ur hvørt ætlid þér, ad þeir átján, sem turn-
inn féll yfir í Sílóam og vard ad bana, hafi
verid meira sekir en allir þeir í Jerúsalem búa?
5. alls ekki! eg segi ydur satt: nema þér bæt-
id rád ydar, munud þér allir fá sømu afdrif.
6. Sídan sagdi hann þessa dæmisøgu: madur
nokkurr, sem hafdi plantad fíkjutré í víngardi
sínum, kom og leitadi ávaxta á því, og fann
ekki; 7. þá sagdi hann vid víngardsmanninn:
í þrjú ár hefi eg komid og leitad ávaxta á
þessu fíkju-tré og ekki fundid; høgg þú þad
upp, hvørs vegna skal þad spilla jørdunni?
8. Hinn mælti: leyf þú því, Herra! enn nú
ad standa þetta árid, þar til eg hefi grafid
um þad og borid ad myki, 9. ef vera kynni ad
þad beri ávøxt; en ef ekki, þá lát þú høggva
þad upp sídar.

10. Eitt sinn, er hann kéndi í einhvørju
samkunduhúsi á Sabbatsdegi, 11. bar svo vid,
ad þar var kona, sem haldin hafdi verid af
sjúkleiks anda í átján ár, hún var kreppt og
gat med engu móti rétt sig upp. 12. Þeg-
ar Jesús sá hana, kalladi hann til hennar og
mælti: kona! vertú laus vid sjúkleika þinn! 13.
sídan lagdi hann hendur yfir hana; strax rétt-
ist hún upp og lofadi Gud; 14. en Forstødu-
madur samkundu-hússins, sem líkadi illa, ad
Jesús læknadi á Sabbatsdegi, sagdi vid fólkid:
sex eru dagar þeir, á hvørjum leyft er ad vinna,
komid þér á þeim og látid ydur lækna, en ekki
á hvíldardegi. 15. Honum svaradi Jesús á
þessa leid: hræsnari! hvørr er sá ydar, sem
ekki leysi naut sitt edur asna af stalli, og leidi
til vatns á hvíldardegi? 16. hvørt skyldi þá
ekki leyfilegt ad leysa þessa dóttur Abrahams
á Sabbatsdegi úr fjøtrum þeim, í hvørjum Sat-
an hefir haldid henni í átján ár? 17. og er
hann hafdi þetta mælt, blygdudust allir mót-
stødumenn hans, en fólkid gladdist yfir øllum
þeim dásemdar verkum, er hann gjørdi.

V. 54—56. Matt. 16, 2. 3. V. 57—59, Matt. 5, 25. 26. a. Þ. e. eptir samvitsku ydar.

18. Einhvørju sinni sagdi hann: hvørju er
Guds ríki líkt? edur vid hvad skal eg því sam-
jafna? 19. líkt er það mustards korni, sem mad-
ur tók og sádi í jurtagard sinn; það óx og
vard ad svo stóru tré, ad fuglar himins hreidr-
udu sig í greinum þess. 20. Aptur sagdi hann:
vid hvad skal eg líkja Guds ríki? 21. líkt er
það súrdeigi því, er kona tók og meingadi vid
þrjá mælira mjøls, og sýrdist þá alltsaman.

22. Þegar hann var á ferd til Jerúsalem,
fór hann um borgir og þorp, og kéndi; 23.
þá spurdi einhvørr hann: Meistari! munu þeir
ekki verda fáir, sem hólpnir verda? en hann
sagdi til fólksins: 24. keppist ad komast gégn-
um hid þraungva hlidid; því eg segi ydur satt:
ad margir eru þeir, sem leitast vid ad koma
þar inn, en géta það ekki a). 25. Frá þeim
tíma ad húsbóndinn er uppstadinn og hefir lokad
dyrunum, munud þér, sem fyrir utan standid,
taka ad berja uppá og segja: lúk þú upp fyr-
ir oss, Herra! en hann mun svara: eg þekki
ydur ekki, og veit ekki hvadan þér erud. 26.
Þá munud þér segja: vér høfum etid og drukk-
id med þér og á strætum vorum kéndir þú.
27. En hann mun segja: eg þekki ydur ekki,
né veit hvadan þér erud; farid frá mér allir
íllgjørda menn! 28. mun þar þá verda vein
og tanna-gnístran, nær þér sjáid Abraham,
Isaak og Jakob og alla Spámennina í Guds
ríki, en ydur útrekna. 29. Þá munu þeir koma
frá austri og vestri, nordri og sudri, og sitja
til bords í Guds ríki; 30. því gétid gjætur
ad því, ad enir sídustu munu verda hinir fyrstu,
og þeir sídastir, er fyrstir vóru.

31. Þenna sama dag komu til hans nokkr-
ir Faríseár og søgdu: far þú hédan, því Heró-
des situr um líf þitt. 32. Hann mælti: farid
þér og segid þessum ref: eg rek djøfla út, og
held áfram ad lækna í dag og á morgun, en
á þridja degi mun líf mitt enda; 33. þó verd
eg ad halda áfram í dag og á morgun og þann
komanda dag; því það hæfir ekki ad nokkurr
Spámadur sé líflátinn fyrir utan Jerúsalem.
34. Jerúsalem, Jerúsalem! þú, sem aflífar Spá-
mennina, og grýtir þá, sem til þín erú sendir,
hvørsu opt hefi eg ekki viljad samansafna børn-
um þínum, einsog hænan safnar úngum sínum
undir vængi sér, en þér hafid ekki viljad. 35.
Þar fyrir mun ydar bústadur í eydi látinn
verda. Trúid mér, ad þér munud ekki sjá mig
til þess ad sá tími kémur, er þér segid: vel-
kominn veri oss sá, er kémur í Drottins erindi!

## 14. Kapítuli.

*Jesús læknar vatnssjúkan; rædur frá því ad metast um sæti; framsetur dæmisøguna um þá miklu kvøldmáltíd; talar um það, sem krefst af þeim, sem vilja verda hans lærisveinar, og vid hvørju þeir megi búast.*

1. Svo bar vid einhvørn tíma, ad hann kom
á hvíldardegi í hús eins af høfdíngjum Faríse-
anna til máltídar; høfdu þeir þá vørd á honum.
2. En frammi fyrir honum stód madur nokk-
urr vatnssjúkur. 3. Þá spurdi Jesús þá Skrift-
lærdu og Faríseana, hvørt leyfilegt væri ad
lækna á hvíldardegi, en þeir þøgdu vid. 4.
Hrærdi þá Jesús vid honum, læknadi hann og
lét hann burt fara. 5. Sídan sagdi hann vid
þá: ef einhvørr ydar á asna eda naut, sem fell-
ur í pitt, dregur hann það ekki jafnskjótt upp,
þótt hvíldardagur sé? 6. hvar til þeir gátu
engu svarad. 7. Sídan sagdi hann vid þá, er
til bordsins sátu, þegar hann sá, ad þeir vøldu
sér ædstu sæti: 8. þegar einhvørr býdur þér til
veitslu, þá set þig ekki í hin ædstu sæti; vera

V. 18—21. Matt. 13, 31—33. Mark. 4, 30—32. V. 24. Matt. 7, 13. 14. a. Þ. e. af því þeir eru þess ekki verdir. V. 26. Matt. 7, 21—23. V. 29. Matt. 8, 11. 12. V. 30. Matt. 19, 30. 20, 16. Mark. 10, 31. V. 34—35. Matt. 23, 37—39.

kann ad annar œdri þér sé bodinn, 9. og sá
komi, sem baud þér og honum, og segi vid þig:
géf þú þessum rúm, og hljótir þú þá med blygd-
un ad hafa hinn ytsta sess; 10. heldur, nær
þér er bodid, þá set þig í hid ytsta rúm, svo
þegar sá kémur, sem þér baud, segi hann vid
þig: vinur, þoka þér upp betur! nýtur þú þá
virdíngar af þínum sessu-nautum; 11. þvíad
hvørr sig sjálfan upphefur, hann mun nidur-
lægjast, og hvørr sig sjálfan nidurlægir, hann
mun upphafinn verda.

12. Framvegis sagdi hann vid þann, er hon-
um hafdi bodid: þegar þú býdur til middags-
edur kvøld-verdar, bjód þú þá hvørki vinum
þínum, brœdrum edur náúngum, ekki heldur rík-
um nágrønnum þínum, svo ekki bjódi þeir þér
aptur, og njótir þú svo endurgjalds. 13. Held-
ur nær þú gjørir heimbod, svo bjód þú fátæk-
um, vønudum, hølltum og blindum, 14. og sæll
ert þú þá, því þeir hafa ekki þad, med hvørju
þeir skuli endurgjalda þér; en þad mun verda
þér endurgoldid í upprisu réttlátra. 15. En er
þetta heyrdi einn af þeim, er til bordsins sátu,
mælti hann: sæll er sá, sem situr til bords í
Guds ríki. 16. Honum svaradi Jesús: mad-
ur nokkur bjó til mikla kvøldmáltíd og baud þáng-
ad mørgum; 17. og þegar matmáls tími var
kominn, sendi hann þjón sinn ad segja þeim til,
er bodnir vóru, ad þeir skyldu koma, því allt
væri til reidu; en þeir afsøkudu sig allir í einu
hljódi. 18. Sá fyrsti sagdi: eg hefi keypt mér
akur, og er mér því naudsyn á ad fara og skoda
hann; eg bid þig, afsaka mig. 19. Annar
sagdi: fimm pør akneyta keypta eg, fer eg nú út
ad reyna þau, eg bid þig, afsaka mig. 20.
Sá þridji sagdi: konu hefi eg mér keypta, og
gét eg þess vegna ekki komid. 21. Þjóninn
fór og kunngjørdi húsbónda sínum allt þetta;
þá reiddist húsbóndinn og sagdi vid þjón sinn:
far þú snarlega út á strœti og gøtur borgarinn-
ar, og fær þú híngad volada, vanada, hallta og
blinda. 22. Þjóninn sagdi: eg hefi gjørt þad
þú baudst, Herra! en þar er enn nú meira rúm.
23. Þá sagdi húsbóndinn vid hann: far þú
út á stigu og þjódvegi, og þrístu þeim svo fast
ad koma, ad mitt hús verdi fullt; 24. því eg
segi ydur, ad enginn þeirra manna, er bodnir
vóru, munu njóta minnar máltídar.

25. Honum vard samferda mikill fjøldi fólks;
snérist hann þá vid þeim og tók svo til orda:
26. ef sá er nokkurr, sem til mín kémur, og
metur ekki minna fødur sinn og módur, konu,
børn, brœdur og systur, og jafnvel sitt egid líf,
hann kann ekki minn Lærisveinn ad vera; 27.
og sá, sem ekki er fús ad taka sinn kross á herd-
ar og fylgja mér eptir, gétur ekki minn Læri-
sveinn verid. 28. Því hvørr er sá af ydur,
sem vill byggja sér stórt hús, er ekki setjist fyrst
nidur og reikni kostnadinn, hvørt hann hafi þad
hann vidþarf, 29. svo ad þegar hann er búinn
ad leggja grundvøllinn, en gétur ekki fullkomn-
ad bygginguna, þá skuli ekki allir, sem þad sjá,
géra gys ad honum og segja: 30. madur þessi
tók ad byggja, en gat ekki fullkomnad býgging-
una. 31. Eda hvørr er sá Konúngur, sem byr-
jar ad hefja strid móti ødrum Konúngi, er ekki
rádslagi fyrst um, hvørt hann med tíu þúsund-
um géti mætt þeim, sem hefir tuttugu þúsund-
ir gégn honum! 32. Ad ødrum kosti mun hann
senda bodskap til hins, medan hann er enn nú
í fjarska, og leita fridar. 33. Þannig er því
og varid med hvørn af ydur, sem ekki yfirgéf-
ur allar eigur sínar, ad hann ekki fær minn
Lærisveinn verid. 34. Saltid er gott, en missi
þad krapt sinn, med hvørju skal þad þá selta?
35. þad er þá hvørki á túnjørd, né til áburdar

V. 12. Sbr. Lúk. 6, 32. ff. V. 13. Sbr. Matt. 6, 2. 5. 16. V. 26. Matt. 10, 37. 38. V. 34. Matt. 5, 13. Mark. 9, 50.

hæfilegt, heldur kasta menn því út. Hvørr eyru
hefir ad heyra, hann heyri!

## 15. Kapituli.

Dæmisaga um þann týnda saud; hinn mista peníng og þann tapada son.

1. Þá komu til hans margir tollheimtu-
menn og bersyndugir ad heyra kénníngu hans;
2. en Faríseár og Skriftlærdir ømudust vid því,
og spurdu, því hann tæki ad sér bersynduga,
og hefdi samneyti vid þá? 3. Þá sagdi Jesús
þeim þessa dæmisøgu: 4. hvørr er sá af ydur
er á hundrad saudi, og týnir einum af þeim, ad
hann ekki skilji þá níu og níutíu eptir í audn,
og fari ad leita þess, er týndur var, þángad
til hann finnur hann? 5. og þegar hann hefir
fundid hann, leggur hann hann med gledi á
herdar sér, 6. og nær hann er heim kominn, kall-
ar hann saman vini sína og nágranna, og seg-
ir: gledjist med mér, eg hefi minn saud aptur
fundid, sem eg týndi. 7. Trúid mér, meiri
gledi mun á himni verda yfir einum syndugum,
sem bætir rád sitt, en yfir níutíu og níu réttlát-
um, er ekki þurfa endurbótar vid. 8. Edur
hvør er sú kona, sem á tíu penínga, og týni
hún einum, ad hún ekki kveiki ljós, sópi húsid
og leiti vandlega til þess hún finnur hann?
9. Og þegar hún hefir fundid hann, kallar hún
á vinkonur sínar og grannkonur, og segir: sam-
gledjist med mér! eg hefi minn peníng aptur
fundid, sem eg týndi. 10. Þannig munu Engl-
ar Guds gledjast yfir einum syndugum, sem
bætir rád sitt. 11. Framvegis sagdi hann:
madur okkurr átti tvo sonu, 12. sá yngri þeirra
sagdi vid fødur sinn: lát mig fá þann hluta
fjárins, sem mér ber; og hann skipti milli þeirra
fénu. 13. Skømmu sídar tók sá yngri allt fé
sitt og ferdadist í fjarlægt land; þar sóadi hann
fé sínu í óhófsømum lifnadi. 14. Nú er hann
hafdi eydt øllum eigum sínum, kom þar mikid
hallæri í landid, tók hann þá ad lída naud,
15. fór hann þá og héldt sig til eins borgar-
manns þar í bygdarlaginu, sem sendi hann útá
bú sitt, ad gjæta þar svína sinna; 16. girnt-
ist hann þá ad sedja sig af drafi því, er svínin
átu; enginn var sá, er gjæfi honum nokkud.
17. Nú sá hann ad sér og sagdi: hvørsu marga
daglauna-menn heldur fadir minn, sem hafa
gnægd matar, en eg ferst í húngri; 18. eg
vil taka mig upp og fara til fødur míns, og
segja vid hann: Fadir! eg hefi misbrotid vid
Gud og þig, 19. og er ekki lengur verdur ad
heita sonur þinn. Lát þú mig hafa árángur
med einum af verkamønnum þínum. 20. Bjóst
hann þá til ferdar til fødur síns; en er hann
var enn nú lángt í burtu, þekkti fadir hans hann
og kéndi í brjósti um hann, hljóp og féll um
háls honum og kysti hann. 21. En sonur-
inn sagdi vid hann: Fadir minn! eg hefi mis-
brotid vid Gud og þig, og er nú ekki framar
verdur ad heita sonur þinn. 22. Þá sagdi
fadirinn vid þjóna sína: færid híngad hina bestu
skikkju og færid hann í, dragid hríng á hønd
hans og skó á fætur honum; 23. komid med
ali-kálf og slátrid, svo vér gétum matast og
verid gladir; 24. því þessi sonur minn, sem
var daudur, er lifnadur aptur, og hann, sem
týndur var, er fundinn; tóku menn nú ad
gledjast. 25. En svo bar vid ad eldri bródir
hans var á akri, og er hann kom og nálgad-
ist húsid, heyrdi hann samsaung og dans;
26. kalladi hann þá á einn af þjónustumønn-
unum, og frétti hann, hvad um væri; 27. hann
sagdi: bródir þinn er kominn, og fadir þinn
hefir slátrad ali-kálfi, af því hann heimti son
sinn heilan heim. 28. Reiddist hann þá og
vildi ekki fara inn. Fadir hans fór því út og
baud honum inn ad koma. 29. Hann sagdi

V. 4—7. Matt. 18, 12. 14.

vid fødur sinn: í svo mørg ár hefi eg nú þjón-
ad þér og aldrei breytt útaf bodum þínum, þó
hefir þú aldrei géfid mér kidlíng, ad eg mætti
gledjast med vinum mínum; 30. en þessi son-
ur þinn, sem sóad hefir aleigu sinni med skjæk-
jum, er nú kominn, og hans vegna slátrar þú
ali-kálfi. 31. Hinn mælti: sonur minn!
þú ert alltaf med mér og allar mínar eigur
heyra þér til; 32. nú ættir þú ad vera gladur
og í gódu skapi, þar bródir þinn, sem daudur
var, er lifnadur aptur, og hann, sem týndur
var, er fundinn.

## 16. Kapituli.

Dæmisagan um hinn ótrúa rádsmann; Jesús ávít-
ar Faríseana, og segir dæmisøgu um Lasarus
og hinn ríka.

En hann kom og svo þannig ad máli vid
Lærisveina sína: madur nokkurr ríkur hafdi sér
rádsmann þann, er rægdur var fyrir honum
um þad, ad hann hefdi sóad hans gótsi,
2. kalladi hann þá þennan fyrir sig og sagdi:
hví heyri eg þetta um þig? gjør þú reikn-
ingskap rádsmennsku þinnar, því þú gétur ekki
lengur verid rádsmadur minn. 3. Þá hugsadi
rádsmadurinn: hvad skal eg nú til bragds
taka? húsbóndi minn sviptir mig rádsmennsk-
unni, eg megna ekki ad grafa a), en skamm-
ast mín ad fara á vonar-vøl. 4. Sje eg,
hvad eg skal gjøra, svo ad þeir, nær eg verd
settur frá rádsmennskunni, skjóti skjóls-húsi
yfir mig. 5. Kalladi hann þá á hvern og einn
af skuldunautum húsbónda síns; hinn fyrsta
spurdi hann: hvad mikid ert þú skuldugur
húsbónda mínum? 6. Hann sagdi: hundrad
tunnur vidsmjørs. Hinn mælti: tak hand-
skrift þína, set þig nidur og skrifa þú snarlega
fimtíu. 7. Þar eptir sagdi hann vid annan:
en hvad mikid ert þú skuldugur? hann sagdi:
hundrad stórmælira hveitis; þá sagdi hann:
tak þú handskrift þína, og skrifa þú áttatíu.
8. Þá hrósadi húsbóndinn þeim rángláta
rádsmanni, ad hann hefdi breytt svo kjænlega,
því þessa heims børn eru kjænari vid samtída
menn sína, enn synir ljóssins; 9. þad segi eg
ydur: gjørid ydur vini af hinum svikssømu
audæfum, svo nær þér farid hédan, ad þér
þá verdid medteknir í þær eilífu tjaldbúdir.
10. Sá, sem er trúr yfir litlu, mun einnig
vera trúr yfir miklu, og sá, sem er ótrúr yfir
litlu, mun og ótrúr vera yfir miklu. 11. Ef
ad þér því ekki erud trúir yfir hinum svikssømu
audæfum, hverr mundi þá trúa ydur fyrir
sannarlegum gjædum? 12. Og ef þér ekki
sýnid trúmennsku í medferd þess, sem adrir
ega, hverr mun þá géfa ydur þad, sem yd-
vart er b)? 13. Enginn kann tveimur Herr-
um ad þjóna, því annadhvørt hlýtur hann
ad meta þann eina midur, og hinn annan
meira, edur adhyllast þann eina og afrækja
hinn. Þannig gétid þér ekki verid bædi þjón-
ar Guds og audsins.

14. Þá Faríseararnir, sem voru menn ágjarnir,
heyrdu allt þetta, gjørdu þeir gys ad honum;
15. hér til svaradi hann þeim: þér keppist
eptir ad sýnast réttlátir fyrir ødrum, en Gud
þekkir ydar hjørtu; því opt er þad, sem menn
álíta ágjætt, Gudi andstyggilegt. 16. Løg-
málid og Spámennirnir gyldtu allt til Jó-
hannesar tíma; sídan hefir kénndur verid lær-
dómurinn um Guds ríki, og hverr madur
vill þreingja sér þar inn med valdi; 17. en
audveldara er þad, ad himin og jørd forgángi,
en ad hid minnsta atrydi af løgmálinu týnist.

V. 3. *a.* Grafa, þ. e. vinna stritvinnu. V. 6. Tunna (Bat), lagar mælir, hérumbil 72 pottar. V. 7. Stórmælir (Kór), þurra mælir, tiusinnum stærri enn Bat. V. 12. *b.* Ydvart, þ. e. þad sem þér eigid eiliflega ad ad búa. V. 13. Matt. 6, 24. V. 16. Matt. 11, 12. V. 17. Matt. 5, 17—18.

18. Hverr, sem segir skilid vid konu sína og
gengur ad ega adra, drýgir hór, og hvørr,
sem tekur þá konu, sem skilid hefir sig frá
manni sínum, drýgir hór.
19. Þad var einusinni ríkismadur, sem
klæddist purpura og dýrindis líni, og lifdi
hvern dag í dýrdlegum fagnadi. 20. Fyrir
dyrum hans lá fátækur madur, er Lasarus
hét, hladinn kaunum; 21. hann girntist ad
sedja sig af molum þeim, er féllu af bordum
ens ríka, og jafnvel hundar komu og sleiktu
sár hans. 22. En svo bar vid ad hinn fá-
tæki dó og var borinn af Englum í fadm
Abrahams; sømuleidis dó hinn ríki og var
grafinn. 23. En er hann var í helvítis kvøl-
um, þá hóf hann upp augu sín, og sá Abra-
ham álengdar, og Lasarus í fadmi hans. 24.
Þá kalladi hann og sagdi: Fadir Abraham!
miskuna þú mér og send Lasarus, ad hann
dýfi fingur-gómi sínum í vatn og kjæli túngu
mína, því eg kvelst í þessum loga. 25. Þá
sagdi Abraham: minnstu þess, sonur! ad þú
naust hins góda í lífinu, en Lasarus ens
vonda, því verdur hann nú huggadur en þú
kvalinn. 26. Auk alls þessa er því svo var-
id, ad á medal vor og ydar er stór geimur,
svo hvørki þeir, sem vilja hédan til ydar, ed-
ur frá ydur til vor, géta komist yfir. 27.
Þá sagdi hann: þá bid eg þig, Fadir! ad
þú sendir hann í hús fødur míns, 28. því
eg hefi fimm brædur, ad hann vari þá vid ad
ekki komi þeir líka í þenna kvalastad. 29. Þá
sagdi Abraham: þeir hafa Móses og spá-
mennina, hlýdi þeir þeim. 30. Hinn mælti:
nei, Fadir Abraham! heldur ef nokkurr
daudra kjæmi til þeirra, þá mundu þeir bæta
rád sitt. 31. Þá svaradi Abraham: ef þeir
ekki vilja hlýdnast Mósi og spámønnunum,
munu þeir ekki heldur trúa, þótt einhvørr
daudur upprisi.

## 17. Kapituli.

Jesús talar um hneyxlanir, sáttgirni, trú; ad menn
egi ekki ad ætla til launa, þó þeir gjøri skyldu
sína; læknar tíu líkþráa; talar um hvorninn
Guds ríki koma muni.

1. Sídan sagdi hann vid Lærisveina sína:
ekki gétur hjá því farid, ad ekki komi hneyxli;
en vei þeim, er því veldur. 2. Betra væri hon-
um, ad mylnu-steinn væri hengdur um háls
honum, og honum væri søkkt í sjó, en ad hann
hneyxli einn af þessum smælingjum. 3. Gjæt-
id ydar því. Hafi einhvørr gjørt á hluta
þinn, þá átel hann, og idri hann þess, þá fyr-
irgéf honum þad, 4. og þótt hann sjøsinnum
á degi hafi misgjørt vid þig, og komi sjø-
sinnum og segi sig idra þess, þá áttu ad
fyrirgéfa honum. 5. Einhvørju sinni søgdu
Postularnir til Drottins: auk þú oss trúna.
6. Þá sagdi hann: þó ydar trú væri ekki
stærri, en svaradi mustards korni, mundud þér
géta sagt til þessa mórberja trés: ríf þú þig
upp med rótum, og festú aptur rætur í haf-
inu; þá mundi þad hlýda ydur. 7. Hvørr
er sá af ydur, sem hefir þjón, er plægir jørd
og gjætir fjár, ad hann segi vid hann, nær
hann kémur af akri, ad hann skuli setjast til
matar; 8. mun hann ekki fyrst segja: bú þú mér
kvøldverd, gyrd þú þig, og þjóna þú mér,
medan eg et og drekk, eptir þetta máttu fá
þér mat og drykk; 9. hvørt mun hann gjalda
þjóni þeim þakkir, þótt hann gjøri þad, sem
honum var bodid? eg held ekki. 10. Sømu-
leidis egid þér ad segja, nær þér hafid gjørt
allt hvad ydur var bodid: ónýtir þjónar er-
um vér, þared vér høfum einúngis gjørt hvad
vor skylda var.

V. 18. Matt. 5, 32. V. 1—5. Matt. 18, 6—8. 15. 21. 22. Mark. 9, 42. V. 6. Matt. 17, 20. 21. 21. Mark. 11, 23.

11. Þegar hann var á ferd sinni til Jerúsalem, og leid hans lá millum Samaríu og Galíleu, 12. og hann fór inn í þorp nokkurt, þá mættu honum tíu menn líkþráir; þeir stódu lángt frá a), 13. kølludu og søgdu: Jesú Meistari! miskuna þú oss! 14. og er hann leit þá, sagdi hann: farid og sýnid ydur Prestunum. En svo bar vid, er þeir fóru, ad þeir urdu heilbrigdir. 15. En einn af þeim, þegar hann sá, ad hann var heill ordinn, snéri aptur og lofadi Gud med hárri raustu, 16. og féll til fóta Jesú og þakkadi honum; en þessi madur var samverskur. 17. Þá sagdi Jesús: vóru þeir ekki tíu, sem heilbrigdir urdu? hvar eru hinir níu? 18. fundust engir, sem vildu aptur snúa og lofa Gud, nema þessi útlendíngur? 19. Sídan sagdi Jesús vid hann: stattu á fætur, og far þú leidar þinnar; þín trú hefir frelsad þig.

20. Einhvørju sinni spurdu Fariseear hann ad, nær Guds ríki mundi koma? Þá svaradi hann þeim: Guds ríki kémur ekki þannig, ad á því beri; 21. og ekki verdur sagt: sjá! þad er þar, eda þad er hér; því Guds ríki er hid innra í ydur. 22. Sídan sagdi hann til Lærisveina sinna: sá tími mun koma ad ydur mun lánga eptir ad sjá einn dag Mannsins Sonar b), og þér munud ekki sjá hann. 23. Þá munu sumir segja vid ydur: sjáid! hann er þar! hann er hér! en farid ekki þángad og fylgid þeim ekki; 24. því eins og leyptrandi eldíng lídur frá einu skauti himins til annars, eins mun og verda tilkoma Mannsins Sonar; 25. en ádur hlýtur hann margt ad lída og fyrirlitinn ad verda af þessarar aldar mønnum. 26. Því eins og gékk til á døgum Nóa, eins mun tilgánga vid tilkomu Mannsins Sonar. 27. Þeir héldu veitslur, tóku sér konur og giptust, allt til þess dags, er Nói fór inn í ørkina og flódid kom, sem eydilagdi þá alla. 28. Eins gékk til á døgum Lots, þeir sátu ad veitslum, keyptu, seldu, pløntudu og byggdu hús; 29. en á þeim degi, þegar Lot fór út af Sódómu, rigndi eldi og brennisteini af himni, sem eydilagdi þá alla. 30. Eins mun tilgánga á þeim degi þegar Mannsins Sonur birtist. 31. Á þeim degi þá varist sá, sem er á þaki uppi, ad fara nidur í húsid ad taka bús-gøgn sín; eins sá, sem er á akri, ad snúa aptur. 32. Munid til konu Lots; 33. sá, sem þá vill forda lífi sínu mun týna því, en sá, sem stofnar því í hættu, mun fá því borgid. 34. Trúid mér! á þeirri nóttu munu tveir vera í einu hvílu-rúmi, sá eini mun verda medtekinn, og hinn eptirskilinn; 35. tvær munu mala saman, ønnur þeirra mun verda medtekin, hin eptirskilin. 36. Þá spurdu þeir hann ad: hvar þá, Herra? hann sagdi: þar c), sem hræid er, þángad munu ernirnir safnast.

## 18. Kapítuli.

Jesús rædur til óþreytanlegra bæna; framsetur frásøguna um Fariseann og tollheimtarann; talar um úngborn, um sjálfs afneitun, ad hún muni endurgoldin verda; talar um sína pínu. Læknar blindann.

1. Þá sagdi hann þeim dæmisøgu uppá þad, ad menn ættu stødugt ad bidja og ekki þreytast. 2. Í borg nokkurri — sagdi hann — var Dómari, sem hvørki óttadist Gud né blygdadist fyrir mønnum. 3. Í sømu borg var ekkja, sem kom til hans og mælti: lát þú mig ná rétti yfir mínum mótstødu manni; 4. en hann skeytti því ekki um hríd. Eptir þetta hugsadi hann: þótt

V. 12. a. Þeir máttu ekki koma nálægt heilbrigdum mønnum, 3 Mós. 13, 45. 46. V. 22. b. Þ. e. einn dag hans tilkomanda ríkis. V. 23. Matt. 24, 23. 26. 27. V. 26. Matt. 24, 37—39. 1 Mós. 6, 2. 4. 7, 1. 21. V. 28. 1 Mós. 19, 24. V. 31. Matt. 24, 17. 18. Mark. 13, 15. 16. V. 34. Matt. 24, 40. 41. V. 36. Matt. 24, 28. c. Þar, nefnil. í Jerúsalemsborg; af því ógudleikinn var þar mestur, lagdist straffid þýngst á hana. Þar sem sekt er, þar er hegníngin vís.

eg ekki óttist Gud né skeyti um nokkurn mann,
5. þá samt vegna þess, ad ekkja þessi gjørir mér
ónædi, vil eg láta hana ná rétti sínum, ad hún
ekki ávalt komi til mín og naudi á mér. 6.
Þá sagdi Drottinn: géf þú gaum ad, hvad þessi
rángláti Dómari sagdi; 7. mundi þá ekki Gud
hjálpa sínum útvøldu, sem ákalla hann nótt og
dag, þó hann fresti hjálpinni. 8. Trúid mér:
hann mun snarlega hjálpa þeim. En þegar
Mannsins Sonur kémur, hvørt mun hann þá
finna trú á jørdu?

9. Einhvørju sinni sagdi hann þeim, er þóktust
ødrum betri og fyrirlitu adra, þessa dæmisøgu:
10. tveir menn fóru upp í musterid ad bidjast
fyrir, sá eini var Faríseí, hinn tollheimtumadur.
11. Faríseinn stód og badst þannig fyrir med
sjálfum sér: Gud! eg þakka þér, ad eg ekki
er, sem adrir menn: ræníngjar, órádvandir,
hórkallar, edur eins og þessi tollheimtu-mad-
ur. 12. Eg fasta tvisvar í viku, og géld tí-
undir af øllu því eg á. 13. En tollheimtu-
madurinn stód lángt frá, og vildi ekki hefja
augu sín til himins, heldur bardi sér á brjóst
og sagdi: Gud! vert þú mér syndugum líkn-
samur! 14. trúid mér, ad þessi fór Gudi
þekkari en hinn heim í sitt hús; því hvørr,
sem upphefur sjálfan sig, hann mun nidurlæg-
jast, en hvør hann lítillækkar sjálfan sig, hann
mun upphafinn verda.

15. Einhvørju sinni færdu menn børn til
hans, ad hann snerti þau. En er Læri-
sveinarnir sáu þad, ávítudu þeir þá. 16. En
Jesús kalladi þau til sín og mælti: leyfid
børnunum til mín ad koma og bannid þeim
þad eigi, því slíkra er Guds ríki. 17. Trú-
id mér! hvørr hann medtekur ekki Guds ríki
eins og barn, mun ekki innkoma í þad.

18. Þá spurdi høfdíngi nokkur hann ad
og sagdi: gódi Meistari! hvørsu skal eg breyta
svo eg ødlist eilíft líf? 19. Honum svaradi
Jesús: hví kallar þú mig gódan? einginn er
gódur nema Gud einn. 20. Þú kannt bod-
ordin: þú skalt ekki hórdóm drýgja, ekki mann
vega, ekki stela, ekki bera ljúgvitni, heidra fød-
ur þinn og módur þína. 21. Hann mælti:
alls þessa hefi eg gjætt frá únga aldri. 22.
Nær Jesús heyrdi þad, sagdi hann: enn er þér
nokkurs ávant: sel þú allt hvad þú átt, og
skipt þú því med fátækum, munt þú þá fjár-
sjód hafa á himni; kom þú sídan, og fylg
mér. 23. En er hann heyrdi þetta, vard
hann mjøg hryggur, því hann var audmadur
mikill. 24. En er Jesús sá hann hryggjast,
sagdi hann: hvørsu torveldt er þad fyrir þá,
sem ríkir eru, ad komast í Guds ríki? 25.
Hægra er úlfaldanum ad fara í gégnum nálar-
augad, en ríkum manni í Guds ríki. 26.
Þá søgdu þeir, er þetta heyrdu: hvørr mun
þá hólpinn verda? 27. Hann mælti: þad,
sem mønnum sýnist ómøgulegt er Gudi møgu-
legt.

28. Þá sagdi Pétur: sjá! vér yfirgáfum
allt og gáfumst til fylgdar vid þig. 29.
Jesús mælti: trú þú mér: ad enginn er sá, sem
yfirgéfid hefir hús, edur foreldri, brædur, konu
edur børn, Guds ríkis vegna, 30. ad hann
ekki fái þad margfaldlega endurgoldid í þessu
lífi, og á sídan hid eilífa líf.

31. Þar eptir tók hann þá tólf til sín og
sagdi vid þá: nú førum vér til Jerúsalem,
mun þá framkoma allt þad, sem skrifad er af
spámønnunum um Mannsins Son. 32. Hann
mun ofurseldur verda heidíngjum, hæddur,
spottadur, og spýtt á hann; 33. þeir munu
og húdstrýkja hann og lífláta, en á þridja
degi mun hann upprísa. 34. En þeir skildu-

V. 15—30. Matt. 19, 13—30. Mark. 10, 13—31. V. 31—34. Matt. 20, 17—19. Mark. 10, 32—35. sam-
anber Matt. 16, 21. ff. 17, 22. ff. Lúk. 9, 22.

ekkért af þessu, það var þeim hulid, og þeir skynjudu ekki þad, sem hann sagdi þeim.

35. Þá þeir nálgudust Jerikó, sat blindur madur vid veginn og beiddist ølmusu. 36. Nú er hann heyrdi ad mikill fjøldi fólks fór framhjá, spurdi hann hvad um væri? 37. Honum var sagt, ad Jesús af Nasaret færi þar hjá. 38. Þá kalladi hann og sagdi: Jesús, nidji Davíds! miskuna þú mér! 39. en þeir, sem á undan fóru, høstudu á hann, ad hann þegdi; en hann kalladi þess ákafar og sagdi: nidji Davíds! miskuna þú mér! 40. Þá nam Jesús stadar og baud ad leida hann til sín. Þegar hann nálgadist, spurdi Jesús hann, 41. hvad hann vildi ad hann gjørdi vid hann? hann mælti: þad, Herra! ad eg fái aptur sjón mína. 42. Jesús mælti: vertú skygn! þín trú hefir hjálpad þér, 43. og strax fékk hann sjón sína, og fylgdi honum, lofandi Gud; og fólkid allt, er sá þetta, vegsamadi Gud.

## 19. Kapítuli.

Sakeus medtekur Jesúm; Jesús framsetur dæmisøgu uppá dygga og ódygga medferd fengins fjár: rídur inn í Jerúsalem; hreinsar musterid; kénnir þar, og menn leitast vid ad fyrirkoma honum.

1. Þegar hann ferdadist gégnum Jerikó, var þar madur nokkur, er Sakeus hét, 2. hann var fóríngi tollheimtu-manna og audugur ad fé; 3. hann leitadi tækifæris ad sjá Jesúm, en gat ekki fyrir mannfjøldanum, því madurinn var lítill vexti; 4. hljóp hann þá fyrir, og klifradi uppí eitt mórberja tré, ad hann fengi sjed Jesúm, því leid hans lá þar framhjá. 5. Þegar nú Jesús kom þángad, vard honum litid upp, sá hann og sagdi: Sakeus! skunda þú ofan, þvíad í dag ber mér ad dvelja í húsi þínu. 6. Hann fór þá ofan med flýtir, og tók vid honum næsta gladur, 7. en allir, sem þetta sáu, létu illa vid og søgdu: hann tekur sér gistíngu hjá bersyndugum. 8. Sakeus stód fyrir honum, og sagdi vid Jesúm: helmíng fjár míns géf eg fátækum, og hafi eg nokkud ránglega af ødrum, géf eg honum ferfaldt aptur. 9. Jesús sagdi þá vid hann: í dag er heill skén húsi þessu, því ad þessi madur er og af Abrahams ætt, 10. en Mannsins Sonur er kominn ad leita ad því, sem tapad var, og frelsa þad.

11. Sídan bætti hann vid þessari dæmisøgu, því nú var hann kominn í nánd vid Jerúsalem, en þeir ætludu ad Guds ríki mundi nú strax birtast; 12. hóf hann þar fyrir svo rædu sína: madur nokkur edalborinn ferdadist í fjarlægt land, ad hann afladi sér ríkis og kjæmi sídan heim aptur. 13. En ádur kalladi hann fyri sig tíu af þjónum sínum, og seldi þeim í hendur tíu merkur a) og mælti svo fyrir, ad þeir skyldu kaupslaga med þær þángad til hann kjæmi aptur. 14. En borgar-mønnum var illa til hans, og sendu menn á eptir honum, er skyldu segja: ad þeir vildu ekki hafa hann fyrir Konúng yfir sig. 15. Nú er hann kom til baka og hafdi tekid vid kóngsdæminu, baud hann ad kalla til sín þjóna þá, er hann hafdi selt silfrid í hendur, svo ad hann yrdi vís, hvad hvørr þeirra hefdi ábatast. 16. Kom þá sá fyrsti og sagdi: mørk þín, Herra! hefir ávaxtast um tíu merkur. 17. Konúngurinn mælti: vel sé þér, þú gódi þjón! þú varst trúr yfir litlu, skaltú því fá yfirrád yfir tíu borgum. 18. Nú kom annar og sagdi: mørk þín, Herra! hefir ávaxtast um fimm merkur. 19. Hann mælti sømuleidis vid þenna: þú skalt og ráda yfir fimm borgum. 20. En nú kom einn og sagdi: tak þú hér, Herra! vid mørk þinni, hvørja eg hefi geymt í sveita dúki,

V. 35—43. Matt. 20, 30—34. Mark. 10, 46—55. V. 10, sbr. Matt. 15, 24. 18, 11. V. 11—28. Matt. 25, 14—30. V. 13. Mørk, $\frac{1}{80}$ af pundi, (sjá Skgr. Matt. 18, 24).

21. Því eg óttudumst þig, því þú ert madur harddrægur; vilt taka þad, sem þú ekki nidurlagdir a) og uppskéra hvar þú ekki hefir sád. 22. Vid hann sagdi Konúngurinn: þú fellir þig sjálfur, þú illi þræll! þar þú vissir ad eg er madur hardur, sem tek þad sem eg ekki hefi nidurlagt, og skér þar upp, hvar eg ekki hefi sád; 23. hví gafstú þá ekki fé mitt þeim í hendur, sem verdsla med peninga, svo eg gjæti fengid þad aptur med ábata, þá eg kjæmi? 24. Þá sagdi hann vid þá, er nær vóru staddir: takid mørkina frá honum, og géfid þeim sem tíu merkur hefir. 25. [Þeir mæltu: Herra! hann hefir (ádur) tíu]. 26. Eg segi ydur, ad hvørjum sem hefir, mun meira géfid verda, en frá hinum, sem ekkért hefir, mun jafnvel tekid verda þad hann hefir; 27. en þessa óvildar-menn mína, sem ekki vildu hafa mig til Konúngs yfir sér, færid þá híngad, og takid þá af lífi fyrir augum mér. 28. Og er Jesús hafdi þetta sagt, héldt hann ferdinni áfram upp til Jerúsalem.

29. Nú er hann kom í grend vid Betfage og Betaníu hjá vidsmjørs-vidar fjallinu, þá sendi hann tvo af sínum Lærisveinum og mælti: 30. farid þid í þorp þad, sem gagnvart ykkur er, og nær þid komid þar, munud þid finna fola bundinn, hvørjum enginn hefir ádur ridid, leysid hann og leidid híngad. 31. En spyrji einhvørr ykkur, hví þid leysid hann, þá svarid honum ad Herrann þurfi hans. 32. Þeir fóru, sem sendir vóru, og fundu eins og hann hafdi sagt þeim; 33. en er þeir leystu folann, spurdu eigendur hans, því þeir leystu hann? 34. Þeir mæltu: Herrann þarf hans vid, 35. og færdu hann sídan til Jesú. Sídan køstudu þeir klædum sínum yfir folann, og settu hann á bak. 36. En er hann fór á stad, breiddu menn klædi sín á veginn. 37. Þegar hann kom þángad, hvar farid er ofan af vidsmjørs-vidar fjallinu, tók allur flokkur Lærisveina hans ad lofa Gud med hárri gledi-raustu, fyrir øll þau kraptaverk, er þeir høfdu sjed, med þessum ordum: 38. vegsamadur veri Konúngur sá, er kémur í nafni Drottins. Fridur sé á himni og dýrd í upphædum! 39. Nokkrir af Faríseum, sem vóru í flokknum, søgdu þá vid hann: Meistari! hastadu á Lærisveina þína. 40. Hann mælti: þad segi eg ydur, ef ad þessir þegdu, þá mundu steinarnir hrópa. 41. Nú er hann kom svo nær, ad hann sá borgina, grét hann yfir henni og mælti: 42. æ! ad þú ad minnsta kosti á þessum þínum degi vissir hvad til þinnar velferdar heyrdi, en nú er þér þad hulid; 43. þvíad sá tími mun koma yfir þig, ad óvinir þínir munu gjøra hervirki um þig, setjast um þig og þraungva þér á alla vegu, 44. leggja þig ad velli, og børn þín, sem í þér eru, og ekki láta stein yfir steini standa, vegna þess ad þú ekki gafst gaum ad þínum vitjunar tíma.

45. Sídan gékk hann inn í musterid, rak þá út, er seldu þar og keyptu og mælti: 46. svo er ritad, ad mitt hús skuli vera bænahús, en þér hafid gjørt þad ad ræníngja bæli. 47. Daglega kénndi hann í musterinu, en hinir ædstu Prestar og Skriftlærdu, samt fóríngjar fólksins, leitudust vid ad ráda hann af døgum, 48. en þeir vissu ekki, hvørninn þeir skyldu fara ad því, því allur lýdurinn hné ad honum og hlýddi á kénníngu hans.

## 20. Kapítuli.

Jesús vill ekki segja þeim Skriftlærdu, hvadan hann hefdi sinn myndugleika: framsetur dæmisøguna um víngardsmennina, leysir úr spurníngum og ávítar þá Skriftlærdu.

1. Svo bar vid einhvørn þessara daga, er

V. 21. a. Þ. e. vilt heimta meira, en þú fékkst ødrum í hendur. V. 29—48. Matt. 21, 1—17. 45. 46. Mark. 11, 1—10. 15—19. Jóh. 12, 19. V, 1—19. Matt. 21, 23—46. Mark. 11, 27. 12, 12.

hann kéndi lýdnum í musterinu og bodadi nád-
arlærdóminn, ad enir ædstu prestar, þeir Skrift-
lærdu og Öldúngarnir gengu til hans, 2. og
spurdu hann: med hvada myndugleika gjörir
þú þetta, edur hvörr hefir géfid þér þetta vald?
3. Jesús mælti: eg vil og spyrja ydur eins;
segid mér: 4. hvört var skírn Jóhannesar frá
himni, edur frá mønnum? 5. en þeir hugsudu:
ef vér segjum ad hann hafi haft hana frá himni,
mun hann spyrja: því trúdud þér honum þá
ekki? 6. en ef vér segjum: frá mønnum, mun
allur lýdurinn berja oss grjóti; því hann trúdi,
ad Jóhannes væri Spámadur; 7. kvádust
þeir því ekki vita þad. 8. Jesús mælti: eg segi
ydur þá ekki heldur med hvørjum myndugleika eg
gjøri þetta. 9. Sídan sagdi hann lýdnum þessa
dæmi-søgu: Madur nokkurr plantadi víngard,
og leigdi hann vínyrkju-mønnum, fór sídan og
var erlendis í lánga tíma. 10. Nú er tími var
kominn, sendi hann til vínyrkju-mannanna þjón
sinn, ad þeir gyldi honum þad ákvedna af á-
verti víngardsins; en víngards-mennirnir tóku
hann og børdu, og sendu hann aptur tómhendt-
an; 11. sídan sendi hann annan þjón, þennan
børdu þeir einninn, løgdu honum hádúngar til
og sendu hann aptur tómhendtan; 12. enn nú
sendi hann hinn þridja, þenna lemstrudu þeir
sárum og ráku í burt; 13. þá sagdi eigandi
víngardsins: hvad skal eg nú til ráds taka? eg
vil senda einka son minn, máské þeir, þá þeir
sjá hann, beri vyrdíngu fyrir honum. 14. En
er vínyrkju-mennirnir sáu hann, báru þeir rád
sín saman og søgdu: þessi er erfínginn, látum
oss koma og ráda hann af døgum, svo vér
náum arfinum. 15. Sídan hrøktu þeir hann
út úr víngardinum, og drápu hann. Hvørn-
inn mun nú eigandi víngardsins breyta vid
þá? 16. Hann mun koma og ráda þessa
vínyrkju-menn af døgum, og leigja víngard
sinn ødrum. En er þeir heyrdu þetta, søgdu
þeir: verdi þad aldrei! 17. En hann leit til
þeirra og mælti: hvad þýdir þad þá, sem
stendur í Ritníngunni: „sá steinn, hvørjum
húsa-smidir burtkøstudu, hann er nú horn-
steinn ordinn; 18. hvørr, sem fellur um þenna
stein, mun sundurmolast, en á hvørn sem hann
fellur, þann mun hann merja". 19. Þá
leitudust þeir ædstu prestar og enir Skrift-
lærdu vid ad leggja høndur á hann, en þeir
þordu þad ekki fyrir fólkinu, því þeir skildu
ad hann hafdi sagt þessa dæmisøgu uppá þá.

20. Þeir héldu nú vørd á honum og settu
út njósnar-menn, er láta skyldu sem væru
þeir rádvandir, ad þeir gjæti feingid á ord-
um hans, og afhendt hann yfirvaldinu og á
vald Landsstjórnarans. 21. Þessir spurdu og
mæltu: vér vitum, Meistari! ad þú segir og
kénnir þad, sem rétt er, og gjørir þér engann
manna mun, heldur kénnir þú sannan Guds
veg. 22. Leyfist oss ad gjalda Keisaranum
skatt, edur ekki? 23. En er hann merkti þeirra
sláttskap, sagdi hann: hvad freistid þér mín?
24. Sýnid mér peninginn; hvørs mynd er á
honum, og hvørs yfirskrift hefir hann? þeir
søgdu: Keisarans. 25. Hann mælti: gjaldid
þá Keisaranum, hvad Keisarans er, og þad
Gudi, sem Guds er. 26. Þannig gátu þeir
ekki fengid á ordum hans í vidurvist lýdsins,
en undrudust svør hans og þøgnudu.

27. Þá komu nokkrir af Saddúseum, sem neita
því, ad framlidnir menn upprísi, og spurdu hann
á þessa leid: 28. Meistari! Móses hefir bodid
oss, ad ef einhvørr missir bródur síns, þess er
kvæntur var og dó barnlaus, skuli bródir hins
dána taka konu hans til ekta og þannig halda
vid ættlegg bródur síns. 29. Nú vóru sjø

V. 17. Sálm. 118, 22. V. 20—25. Matt. 22, 15—22. Mark. 12, 13—17. V. 27—40. Matt. 22, 23—33. Mark. 12, 18—27. V. 28. 5 Mós. 25, 5.

brædur; sá fyrsti kvongadist og deydi barnlaus,
30. svo giptist hún ødrum, og þessi deydi einn-
inn barnlaus, 31. sídan þeim þridja, og svo
framvegis, og engum þeirra vard barna audid,
og svo dóu þeir; 32. seinast allra þeirra deydi
og konan. 33. Nú er menn upprísa, hvørs
þessara eginkona verdur hún þá, því allir sjø
høfdu átt hana? 34. Jesús sagdi: hér í heimi
kvongast menn og konur giptast, 35. en þeir,
sem verdir álítast ad ødlast annad líf og upp-
rísa frá daudum, munu hvørki kvongast né giptast,
36. því úr því þeir eru upprisnir, géta þeir
ekki framar dáid, heldur eru þeir Englum likir
og Guds børn. 37. En ad daudir upprísi,
þad hefir og Móses sýnt í greininni um þyrni-
runninn, hvar hann kallar Drottinn Gud Ab-
rahams, Gud Isaaks og Gud Jakobs; 38.
en Gud er ekki Gud daudra, heldur lifendra,
því fyrir Guds krapt lifa þeir allir. 39.
Þá svørudu nokkrir af þeim Skriftlærdu og
søgdu: Meistari! ágjætlega svaradir þú. 40.
Og þeir dirfdust ekki framar ad spyrja hann
nokkurs; 41. en hann spurdi þá þannig:
því segja menn Krist ad vera son Davíds?
42. Þar sjálfur Davíd segir í Sálma-bók
sinni: „Drottinn sagdi mínum Drottni: 43.
sittú mér til hægri handar, til þess eg hefi
gjørt óvini þína ad skør fóta þinna". 44.
Hafi nú Davíd kallad hann Herra, hvørninn
kann hann þá ad heita hans sonur?

45. En í áheyrn alls lýdsins sagdi hann
svo vid Lærisveina sína: 46. varid ydur vid
hinum Skriftlærdu, sem þykir ágjæti í ad
gánga í sídum klædum og láta heilsa sér á
manna-mótum, sitja í fyrirsæti í samkundu-
húsum, og efstir til bords í veitslum. 47.
Þeir eru þad, sem útsjúga hús ekkna og
bidja lángar bænir af hræsni. Þeir munu
þess þýngra straffi mæta.

## 21. Kapítuli.

*Jesús hrósar gjøf ekkjunnar er lagdi í fé-hirdslu Guds; talar um musterisins og Jerúsalems eydileggíngu, og enda heimsins; kénnir daglega í musterinu.*

1. Þá leit hann upp, og sá þá enu riku,
er løgdu gjafir sínar í fé-hirdslu musterisins;
2. vard honum þá litid til einnar ekkju fá-
tækrar, er lagdi þar inn tvo smá-penínga.
3. Þá sagdi hann: trúid mér! þessi fátæka
ekkja hefir meira lagt enn nokkurr annara;
4. því hinir allir hafa lagt í féhirdslu Guds
af því, sem þeir høfdu afgángs, en þessi gaf
af fátækt sinni aleigu sína.

5. Þá nokkrir tøludu um ad musterid væri
prýdt med føgrum steinum og heitgjøfum, ans-
adi hann: 6. þeir dagar munu koma, ad af
þessu, sem þér nú sjáid, mun ekki steinn yfir
steini standa, sem eigi verdi nidurrifinn. 7. Nær
verdur þad? Meistari! spurdu þeir, og hvad
skal til marks hafa um þad, hvønær slikt egi ad
ské? 8. Hann svaradi: gjaldid varhuga vid,
ad þér verdid ekki flekadir, því margir munu
koma í mínu nafni og segja sig Krist ad vera,
og nú sé tíminn kominn, en fyllid ekki flokk
þeirra. 9. Nær þér heyrid um stríd og upp-
hlaup, þá skélfist ekki, því þetta mun á undan
fara, en endirinn er samt ekki strax kominn. 10.
Framvegis sagdi hann vid þá: ein þjód mun
rísa upp gégn annari og eitt riki gégn ødru, 11.
þá munu á ýmsum stødum verda landskjálftar,
hallæri og drepsóttir; þá munu sjást ógurlegir
fyrirburdir og undur mikil á himnum, 12. en
ádur en allt þetta kémur fram, munu þeir leggja

V. 37. 2 Mós. 3, 6. V. 41—44. Matt. 22, 41—46. Mark. 12, 35—37. V. 42. Sálm. 110, 1. V. 45—47. Matt. 23, 5. 6. 7. 14. Mark. 12, 38—40. V. 1—4. Mark. 12, 41—44. V. 5—36. Mark. 13, 1—37. Matt. 24, 1—12.

höndur á ydur, ofsækja ydur, framselja ydur í
samkundu-hús og fángelsi, og draga ydur mín
vegna fyrir Konúnga og Landstjóra. 13. Og
þetta mun koma fram vid ydur til vitnisburdar a).
14. Látid ydur því fast í huga vera, ad þér
ekki fyrifram búid ydur undir málavørn ydar;
15. því eg mun géfa ydur málsnilli og vitsku,
hvørri allir mótstødu menn ydar ekki munu megna
ad mótmæla edur móti ad standa. 16. Þér
munud jafnvel framseldir verda af foreldrum,
systkynum, frændum og vinum, og nokkra af yd-
ur munu þeir lífláta, 17. og allir munu ydur
mín vegna ad hatri hafa; 18. en ekkért hár af
ydar høfdi skal þó farast. 19. Látid stødug-
lyndi vera vørn sálum ydar. 20. En nær
þér sjáid Jerúsalem umkríngda af herflokkum,
þá vitid ad eydilegging hennar er í nánd; 21.
sá, sem þá er í Júdeu-landi, flýi hann til
fjalla, og hvørr, sem í borginni er, flytji hann
þadan; en þeir, sem á landsbygdinni eru, fari þeir
ekki inn í borgina, 22. því ad þessir eru hennar
strøffunar-dagar, og mun þá framkoma allt þad
hér um er ritad. 23. Þúng munu þá
verda kjør óléttra kvenna, og þeirra, sem børn
hafa á brjósti, því mikil harmkvæli munu
þá verda í landinu, og hegníng yfir þessum
lýd; 24. menn munu falla fyrir sverds egg-
jum, og herleiddir verda medal allra þjóda,
og Jerúsalem mun fóttrodin verda af heidnum
mønnum, til þess þeirra tíd er á enda. 25.
Fyrirburdir munu sjást á sólu, túngli og stjørn-
um, og á jørdu ángist medal þjódanna, og
rádleysa og ørvinglan manna á milli. 26.
Sjór og haf mun þá þjóta, menn munu þá
deya af ángistarfullri eptirvæntíngu þess, er
yfir allan heiminn mun koma, því kraptar
himnanna munu hrærast, 27. og þá munu
menn sjá Mannsins Son komanda á skýunum
med makt og mikilli dýrd. 28. Þegar þetta
tekur til ad ské, þá lítid upp og upphefjid ydar
høfud, því ad lausn ydar er í nánd. 29. Hér
vid bætti hann þessu dæmi: gjætid ad fíkju-
trénu og ødrum trjám, 30. þegar aldini þeirra
taka út ad springa, þá sjáid þér á þeim, ad
sumarid er í nánd. 31. Sømuleidis og þér,
nær þér sjáid þetta framkoma, þá vitid ad
Guds ríki er í nánd. 32. Eg segi ydur fyrir
satt, ad þessi kynslód mun ekki undir lok lid-
in, ádur enn allt þetta framkemur. 33. Him-
in og jørd munu farast, en mín ord aldrei.
34. En gjætid ydar, ad hjørtu ydar ekki of-
þýngist vid óhóf í mat edur drykk edur búk-
sorg, ad ekki komi þessi dagur á ydur óvart,
35. því eins mun hann koma og tálsnara yfir
alla þá, sem á jørdu búa. 36. Verid því
ávallt vakandi og stødugt á bænum, svo þér
verdid álitnir þess verdugir, ad umflýa allt
þetta, sem fram mun koma, og mæta frammi
fyrir Mannsins Syni.

37. Um daga kénndi hann í musterinu, en
um nætur var hann utan-borgar á því svo
kallada vidsmjørs-vidar fjalli; 38. En fólkid
flykktist hvørn morgun í musterid ad heyra hann.

## 22. Kapítuli.

Gydíngar rádgast um ad fyrirkoma Jesú; Júdas
svíkur hann; Jesús etur Páskalambid og innset-
ur kvøldmáltídina; áminnir til audmýktar og
hughreystir Lærisveinana; fyrirsegir Péturs hras-
un, og þær freistíngar sem Lærisveinunum séu
búnar; Jesú sálar ángist í grasgardinum; hann
er tekinn høndum; Péturs afneitan; Jesús er
spottadur og sleginn; játar sig Krist ad vera.

1. Nú nálgadist hátídin ósýrdu braudanna,
sem Páskar heita. 2. Þá báru enir ædstu prest-
ar og Skriftlærdir rád sín saman um, hvørninn
þeir skyldu ráda hann af døgum, því þeir
voru hræddir vid alþýduna. 3. En þá fór

V. 13. *a.* Til vitnisburdar, þ. e. til þess ydur géfist tækifæri til ad vitna um mig. V. 22, sjá Matt. 24, 15.
V. 1—6. Matt. 26, 3—5. 14—16. Mark. 14, 1. 2. 10. 11.

Satan í Júdas, er kéndur var vid Karíot,
einn af þeim tólf; 4. hann fór og kom ad
máli vid þá ædstu presta og vardmanna for-
íngjana um þad, hvørninn hann skyldi koma
honum á vald þeirra. 5. Vid þetta glødd-
ust þeir, og sømdu vid hann um ad géfa
honum fé þar til. 6. En hann gékkst undir
þetta, og sætti tækifæri ad koma honum á vald
þeirra, án þess ad upphlaup yrdi.

7. Nú kom dagur enna ósýrdu braudanna,
þegar páskalambinu skyldi slátra. 8. Þá
sendi Jesús Pétur og Jóhannes, og sagdi:
farid þér og matbúid páskalambid fyrir oss,
svo vér neytum þess. 9. Þeir spurdu: hvar
hann vildi láta matbúa? 10. Þegar — sagdi
hann — þid komid í borgina, mun mæta yd-
ur madur, sem ber vatns-krús, fylgid hon-
um til þess húss, sem hann fer inn í, 11. og
segid svo húsbóndanum: Meistarinn spyr þig,
hvar þad herbergi sé, hvar hann géti neytt
páskalambsins med Lærisveinum sínum; 12.
mun hann þá sýna ydur loptsal mikinn, vel
uppbúin; búid þar til matar. 13. Þeir fóru
og fundu allt eins og hann hafdi fyrirsagt,
og matreiddu þar páskalambid. 14. Nú er
tími var til, gékk hann undir bord, og
þeir tólf Postular med honum. 15. Þá
sagdi hann: hjartanlega hefir mig lángad
eptir ad neyta þessarar páska-máltídar med
ydur, ádur enn eg líd; 16. því trúid mér:
eg mun ekki neyta hennar framar, til þess eg
fæ hana enn þá fullkomnari í Guds ríki.
17. Þá tók hann bikarinn, gjørdi Gudi þakk-
ir og mælti: medtakid hann, og skiptid hon-
um medal ydar; 18. því eg segi ydur satt,
ad eg mun ekki vín drekka til þess Guds
ríki kémur. 19. Sídan tók hann braudid,
gjørdi Gudi þakkir, braut þad, gaf þeim þad
og mælti: þetta er minn líkami, sem fyrir
ydur verdur géfinn, gjørid þetta í mína minn-
íngu. 20. Sømuleidis bikarinn ad endudum
kvøld-verdi, og mælti: þessi bikar er sá nýi
sáttmáli, (sem stadfestist) med mínu blódi,
sem fyrir ydur verdur úthellt. 21. En sjá!
sá, sem mig svíkur, situr til bords med mér.
22. Um Mannsins Son mun ad sønnu fara
eins og áliktad er, en vei þeim manni, sem
svíkur hann. 23. Þá tóku þeir ad spyrjast á,
hvørr sá væri af þeim, er þetta mundi fremja.
24. Sídan hófst kapprœda medal þeirra
um þad, hvørr þeirra væri mestur. 25. Þá sagdi
hann vid þá: Konúnga, sem ríkjum ráda og
maktarmenn, kalla menn náduga Herra; 26.
en þanninn skal þad ekki vera medal ydar,
heldur á sá, sem mestur er ydar á milli, ad
hegda sér, sem væri hann minnstur, og sá,
sem yfirrádin hefir, eins og væri hann þjón
hinna. 27. Því hvørr er meiri, sá, sem
situr til bords, edur hinn, sem þjónar fyrir
bordi? er þad ekki sá, sem til bords situr?
en eg er medal ydar, sem þjónustu madur.
28. Þér erud þeir, sem stødugir hafid verid
med mér í freistíngum mínum; 29. eg heiti
ydur og hér med ríki, eins og Fadir minn
hefir heitid mér, 30. svo ad þér skulud sitja
til bords med mér í ríki mínu, líka skulud
þér sitja í hásætum og dæma allar tólf
Israels kynkvíslir.

31. En framar sagdi Drottinn: Símon,
Símon! gjæt þú þess, ad Satan hefir leitast
vid ad sælda ydur sem hveiti, 32. en eg hefi
bedid fyrir þér, ad þín trú ekki skyldi þrotna,
og þegar þú loksins sjerd ad þér, þá styrk
þú trú brædra þinna. 33. Pétur mælti:

---

V. 7—23. Matt. 26, 17—29. Mark. 14, 12—25. V. 24. Matt. 18, 1. V. 25—27. Matt. 20, 25—27. Mark. 10, 42—45 Sbr. Jóh. 13, 13—17. V. 28—30, sbr. Matt. 19, 27—28. V. 31, sbr. Job. 1, 1—11.

reidubúinn er eg, Herra! ad fylgja þér jafnvel í fángelsi og dauda. 34. Jesús mælti: sannlega segi eg þér þad, Pétur! ad þú munt þrisvar hafa neitad því, ad þú þekktir mig, ádur enn haninn gélur í dag. 35. Sídan spurdi hann þá: þegar eg sendi ydur án pýngju, mals og skóa, hvørt brast ydur þá nokkud? ekkért, søgdu þeir. 36. Þá sagdi hann: en hvørr ydar, sem nú hefir pýngju edur mal, taki hann þad, og sé sá nokkurr, sem ekki hefir, selji hann yfirhøfn sína, og kaupi sverd; 37. því eg segi ydur: ad nú hlýtur þad ad koma fram á mér, sem skrifad er: „medal illvirkja er hann talinn," og þad sem um mig er spád, mun nú rætast. 38. Þeir mæltu: vér høfum tvø sverd. Hann kvad þad nóg vera.

39. Sídan gékk hann út úr borginni og fór, sem hann var vanur, til vidsmjørs-vidar fjallsins, og fylgdu honum Lærisveinar hans; 40. þegar hann var þángad kominn, þá sagdi hann: bidjid, ad þér fallid ekki í freistni. 41. Gékk hann þá frá þeim nær einu steinsnari, féll á kné og bad á þessa leid: 42. Fadir! ó ad þú vildir taka þenna bikar frá mér! en verdi samt þinn, en ekki minn vilji! 43. birtist honum þá Engill af himni, sá ed styrkti hann; 44. og er hann var staddur í daudans ángist, tók hann enn ákafar ad bidja; en sveiti hans var sem blód-dropar, er falla á jørdu. 45. Sídan stód hann upp frá bæn sinni, kom til Lærisveina sinna, og hann fann þá sofandi af hrygd. 46. Þá sagdi hann vid þá: hví sofid þér? rísid upp og bidjid, ad þér fallid ekki í freistni.

47. Medan hann var þetta ad mæla, þá kom flokkur manna og fyrir honum sá áminnsti Júdas, einn af þeim tólf. Hann veik sér ad Jesú, og minntist vid hann. 48. Jesús mælti: Júdas! svíkur þú Mannsins Son med kossi? 49. en er þeir, sem med honum voru, sáu hvad verda mundi, søgdu þeir: Herra! egum vér ekki ad bregda sverdi? 50. Og einn af þeim hjó til þjóns ens ædsta prests, og sneid af honum hans hægra eyra. 51. Jesús mælti: látid hér vid stadar nema, hrærdi vid eyra þjónsins og læknadi hann. 52. Sídan sagdi Jesús til þeirra ædstu presta og fyrirlida vardmanna musterisins, samt Øldúnganna: þér hafid farid med sverdum og forkum til ad høndla mig eins og ræníngja; 53. en á hvørjum degi hefi eg verid hjá ydur í musterinu, og þér hafid eigi lagt hendur á mig, en þessi er ydar tími og myrkranna veldi.

54. Nú er þeir høfdu handtekid hann, færdu þeir hann í hús ens ædsta prests; en Pétur fylgdi eptir álengdar. 55. Høfdu menn kveiktan eld í midjum hallargardinum, og settist vid hann; tók Pétur sér þá sæti vid hann medal þeirra. 56. En er ambátt nokkur sá hann vid eldinn, stardi hún á hann og mælti: þessi madur var med honum; 57. en hann neitadi því og sagdi: kona! eg þekki ekki þann mann. 58. Litlu sídar sá hann annar madur og sagdi: þú ert og einn af þeim; en Pétur kvad nei vid því. 59. Nú er lidinn var hérumbil einn tími, styrkti annar madur þetta og sagdi: í sannleika var þessi madur med honum, því hann er galverskur. 60. Pétur mælti: eg skil ekki, madur! hvad þú segir, og strax, sem hann var þetta ad tala, gól haninn; 61. En Drottinn snéri sér vid, og leit til Péturs, minntist þá Pétur þess, er Drottinn hafdi sagt, ad ádur enn haninn galadi,

V. 34. Mark. 14, 27—31. Matt. 26, 31—35. V. 37. Esa. 53, 12. V. 39, Matt. 26, 36—46. Mark. 14, 32—42. V. 47—53, Matt. 26, 47—53. 69—75. Mark. 14, 43—54. 66—72. Joh. 18, 3—11. V. 54—62. Joh. 18, 12—27. Matt. 26, 57. 69—75. Mark. 14, 53. 66—72.

mundi hann þrisvar hafa afneitad sér; 62. gékk
hann þá út og grét sáran.
63. En þeir menn, sem høfdu Jesúm í vard-
haldi, gjørdu gys ad honum, og børdu hann,
64. byrgdu fyrir augu hans og slóu í andlit
honum og søgdu: spá þú, hvørr var sá, sem
bardi þig? 65. Og margt annad søgdu þeir
hádulegt vid hann.
66. Ad morgni søfnudust saman Øldúngar
lýdsins, enir ædstu prestar og Skriftlærdir og
færdu hann í rádstofu þeirra, 67. og krøfdu
hann ad segja sér, hvørt hann væri Kristur.
Hann mælti: þó eg segi ydur þad, þá trúid
þér því ekki; 68. en spyrji eg ydur nokkurs,
þá svarid þér mér ekki, eda látid mig lausan,
69. en frá þessum tíma mun Mannsins
Sonur sitja til hægri handar Guds kraptar.
70. Þá spurdu þeir allir: ert þú þá Guds
Sonur? hann mælti: þér segid satt, því eg
em þad. 71. Þá søgdu þeir: hvad þurfum
vér nú framar vitna vid, þar vér høfum sjálf-
ir heyrt þad af hans munni?

## 23. Kapituli.

Pílatus úrskurdar ad Jesús sé saklaus; sendir hann til Heródesar; lætur Barabbas lausan, en fordæmir Jesúm. Símon ber hans kross. Jesús bannar Jerúsalems dætrum ad gráta yfir sér; er krossfestur; og bidur fyrir sínum óvinum; hann er spottadur; yfirskriftin; annar rænínginn umvendist. Jesús deyr; undur vid Jesú dauda; hans greftrun.

1. Þá stód upp allur mannfjøldinn og
færdi hann til Pílatusar, 2. og tók til ad
áklaga hann med svofeldum ordum: þenna
mann høfum vér fundid ad afvegaleida alþýd-
una, og banna ad gjalda Keisaranum skatt,
og segja síg ad vera Konúnginn Krist. 3.
Þá spurdi Pílatus hann: ertú Konúngur Gyd-
ínga? Jesús mælti: rétt segir þú! 4. þá
sagdi Pílatus til enna ædstu presta og lýds-
ins: ekkért finn eg saknæmt hjá þessum
manni. 5. En þeir voru því ákafari og
søgdu: hann hefir uppæst fólkid med kénníng-
um sínum í øllu Gydíngalandi allt frá Galí-
leu og híngad. 6. Nú er Pílatus heyrdi
Galíleu nefnda, spurdi hann, hvørt þessi mad-
ur væri galverskur, 7. og er hann vard þess
vís, ad hann var úr veldi Heródesar, sendi
hann hann til Heródess, sem um þessar
mundir var í Jerúsalem. 8. Þegar Heró-
des sá Jesúm, vard hann næsta gladur, því
leingi hafdi hann lángad til ad sjá hann, því
hann hafdi heyrt margt af honum sagt, vænti
hann nú ad sjá eitthvørt teikn af honum. 9.
Spurdi Heródes hann nærsta á marga vega,
en hann svaradi eingu. 10. Geingu þá fram
enir ædstu prestar og Skriftlærdir, og ákløg-
udu hann hardlega, 11. en Heródes og strídsmenn
hans hæddu hann, og gjørdu gys ad honum,
løgdu yfir hann skínandi klædi og sendu hann
aptur til Pílatusar. 12. Á þessum sama degi
urdu þeir Pílatus og Heródes vinir, því ád-
ur hafdi verid fjandskapur þeirra á milli. 13.
Nú lét Pílatus samankalla ena ædstu presta, høfd-
íngjana og fólkid, og tók svo til orda: 14. þér haf-
id fært mér þennann mann, svo sem þann, er
fráснéri lýdnum; en sjáid! nú í ydar vidur-
vist hefi eg ransakad málefni hans og ekki
fundid hann sekan um nokkud þad, er þér
ákjærid hann fyrir. 15. Ekki heldur Heró-
des, því til hans sendi eg ydur sjálfa. Sjá-
id nú! ekkért er þad af honum drýgt, sem
dauda sé verdt, 16. ætla eg því ad refsa hon-
um og láta hann lausan. 17. (En hann
vard ad géfa þeim lausan einn bandíngja á
hvørri hátíd); 18. þá kalladi allur lýdurinn
og sagdi: lát þú aflifa þennan, en géf oss

V. 63—65. Matt. 26, 67. 68. Mark. 14, 65. V. 66. Matt. 26, 63—66. Mark. 14, 61—64. V. 1—25. Matt. 27, 1—26. Mark. 15, 1—15. Jóh. 18, 28—29, 16. V. 17. Hátíd, þ. e. páskahátíd.

Barabbas lausan. 19. En þessi Barabbas
var fyrir upphlaup í borginni og manndráp,
settur í myrkvastofu. 20. Pílatus taladi enn
þá til þeirra, og vildi láta Jesúm lausan;
21. en þeir hrinu upp og søgdu: krossfestú
hann! krossfest þú hann! 22. Í þridja sinni
sagdi Pílatus: hvad hefir þá þessi madur
íllt adhafst? ekkért hef eg fundid þad, hvar
fyrir hann sé dauda sekur; eg vil því refsa
honum og láta hann lausan. 23. En þeir
stódu því fastar á med miklum óhljódum, og
krøfdu, ad hann skyldi krossfestast og óhljód
þeirra og enna ædstu presta tóku yfir. 24.
Þá lagdi Pílatus þann úrskurd á, ad þeirra
vilji skyldi ské, 25. og gaf þeim ad bón
þeirra þann lausan, sem fyrir upphlaup og
manndráp hafdi verid settur í myrkvastofu,
en Jesúm framseldi hann eptir vild þeirra.

26. Þegar þeir leiddu hann út, tóku þeir
mann nokkurn, Símon frá Kyrene, sem kom
af akri, og løgdu krossinn uppá hann, ad
hann bæri hann eptir Jesú. 27. Mikill fjøldi
fólks og kvenna fylgdi honum eptir, sem hørm-
udu og grétu yfir honum. 28. Þá snéri
Jesús sér til þeirra og mælti: þér, Jerúsal-
ems dætur! grátid ekki yfir mér, heldur yfir
sjálfum ydur, og børnum ydrum; 29. því
trúid mér, ad þeir tímar munu koma ad
menn munu segja: sælar eru óbirjur og þau
módur-líf er ekkért fóstur báru, og þau brjóst,
er ekki voru mylkt. 30. Þá munu menn seg-
ja til fjallanna: hrynjid yfir oss, og til háls-
anna: hyljid oss; 31. ef menn fara svo med
hid græna tréd, hvørsu mun þá fara fyrir
hinu visnada. 32. Med honum voru færdir
til lífláts tveir illrædis menn.

33. Þegar þeir voru komnir til þess stad-
ar, sem kalladur er hausaskélja-stadur, þar
krossfestu þeir hann og þessa illrædis menn,
annan til hægri handar honum, en hinn til
vinstri. 34. En Jesús sagdi: Fadir! fyrirgéf
þeim, þeir vita ekki hvad þeir gjøra. Sídan
skiptu þeir klædum hans, og vørpudu þar um
hlut-késti. 35. Og fólkid stód og horfdi á;
en høfdíngjarnir gjørdu og gys ad honum og
søgdu: ødrum hefir hann hjálpad, hjálpi hann
nú sjálfum sér, ef hann er Kristur, hinn út-
valdi Guds. 36. Sømuleidis hæddu hann
strídsmennirnir, komu og báru honum súrt
vín og søgdu: 37. ef ad þú ert Konúngur
Gydínga, þá frelsadu sjálfan þig. 38. Yfir-
skrift var og yfir honum ritud á grísku,
rómversku og hebresku, þannig hljódandi:
„Þessi er Konúngur Gydínga“. 39.
En annar af þeim illvirkjum, sem hengdir
voru, spottadi hann og sagdi: sértú Kristur,
þá frelsadu sjálfan þig og okkur. 40. Þá
tók hinn til orda, ávítadi hann og sagdi:
hrædist þú ekki Gud, þar sem þú þó lídur
sama straff? 41. Vid lídum ad sønnu
maklega fyrir okkar athæfi, en þessi hefir
ekkért íllt adhafst. 42. Þá sagdi hann vid
Jesúm: minnst þú mín, Herra! þegar þú
kémur í ríki þitt! 43. Jesús mælti: sannlega
segi eg þér: í dag skaltú vera med mér í
Paradís. 44. Þad var um sjøttu stund, ad
myrkur kom yfir allt landid, sem varadi allt
til ennar níundu, og sólin missti sinnar birtu;
45. þá rifnadi og fortjald musterisins ad
endilaungu. 46. Og kalladi Jesús hárri
raustu og sagdi: Fadir! í þínar hendur fel
eg minn anda, og er hann hafdi þetta mælt,
uppgaf hann sinn anda. 47. Nú er hundr-
ads-høfdínginn sá þessa atburdi, vegsamadi
hann Gud og sagdi: sannlega hefir þessi mad-
ur verid réttlátur; 48. og allt fólkid, sem

V. 26—32. Matt. 27, 32. Mark. 15, 21. V. 29. Sbr. Matt. 24, 19. 30: Hós. 10, 18. V. 33—56 Matt. 27, 33—60. Mark. 15, 22—47. Jóh. 19, 17—42. V. 43. Sbr. 1 Pét. 3, 18.

komid hafdi ad horfa á þetta, þegar þad sá hvad skédi, bardi þad sér á brjóst, og snéri heimleidis; 49. en allir þeir, sem honum voru kunnugir, og konur þær, er honum høfdu fylgt úr Galíleu, stódu lángt frá, og sáu þetta.

50. En sjá! þá kom madur, Jósep ad nafni, hann var rádherra, gódur madur og réttvís. 51. Þessi madur hafdi ekki samþykkt rádum þeirra og athøfnum; hann var frá borginni Arimatea í Júdeu, og vænti Guds ríkis. 52. Þessi madur gékk til Pílatusar, og bad hann um líkama Jesú, 53. tók hann sídan nidur; sveipadi hann í líni, og lagdi hann í høggna steingrøf, í hvørja ekkért lík hafdi ádur lagt verid. 54. Þetta var adfánga-daginn, og hvíldar-dagurinn fór í hønd.

55. En konur þær, er med Jesú høfdu komid úr Galíleu landi, fylgdu og eptir, skodudu legstadinn, og sáu, hvørninn lík hans var lagt; 56. snéru sídan heim og tilbjuggu ilmandi smyrsl; en um helgina héldu þær kyrru fyrir, eptir því, sem løgmálid baud.

## 24. Kapituli.

Englar boda kvinnunum Jesú upprisu; Jesús birtist þeim tveimur, sem gengu til Emaus, og þeim tíu; heimfærir uppá sig spádómana og losar Lærisveinunum heilogum anda; upp stígur til himna.

1. Þann fyrsta dag vikunnar, strax er lýsti af degi, komu þær til legstadarins, og høfdu med sér smyrsl þau, er þær høfdu tilbúid, og nokkrar adrar konur med þeim; 2. fundu þær þá steininn veltan frá legstadar mynninu, 3. gengu sídan inn og fundu ekki lík Drottins Jesú, 4. en medan þær voru ad undrast yfir þessu, þá sjá! tveir menn stódu hjá þeim í skínandi klædum. 5. Vid þetta urdu þær hræddar, og hneigdu andlit sín til jardar; þá søgdu þeir: hví leitid þér ens lifanda medal daudra? 6. ekki er hann hér, hann er upprisinn, minnist þess, er hann sagdi ydur, medan hann var enn nú í Galíleu, 7. og kvad svo ad ordi: Mannsins Syni byrjar ad verda seldur í hendur illra manna og krossfestast, en upprísa á þridja degi. 8. Minntust þær þá þessara orda, 9. snéru heim frá legstadnum, og kunngjørdu allt þetta þeim ellefu og hinum ødrum. 10. Þessar konur voru: María frá Magdølum, Jóhanna og María, módir Jakobs, og adrar med þeim, er færdu postulunum þessa fregn. 11. En þeir héldu þetta vera hégóma, og festu ekki trú til þess; 12. en Pétur stód þó upp, hljóp til legstadarins, gægdist inn og sá tómar líkblæurnar liggja þar; fór hann sídan heim og undradist þad, er skéd var.

13. Svo bar vid, ad þenna sama dag fóru tveir af þeim a) til þorps nokkurs, sem heitir Emaus; þad er hér um hálfa adra mílu frá Jerúsalem; 14. voru þeir þá ad tala sín á milli um allt þad, er vid hafdi borid. 15. Bar þá svo vid, er þeir voru ad tala um þetta og spyrja hverr annan, ad sjálfur Jesús nálægdist þá og kom í ferdina, 16. en þeirra augu voru svo haldin ad þeir þekktu hann ekki. 17. Þá sagdi hann: hvad er þad, sem þid erud ad tala um ykkar á milli á leid ykkar, og erud svo hryggvir? 18. Þá svaradi annar honum, sem Kleófas hét: ert þú sá eini medal adkomandi manna í Jerúsalem, sem ekki veitst, hvad þar á þessum døgum hefir vidborid. 19. Jesús spurdi hvad þad væri? Þeir søgdu: hverninn farid var med Jesús frá Nasaret, sem var Spámadur og máttugur í ordum og verkum, ad Guds og allra manna vitni; 20. hverninn enir ædstu Kénnimenn og fyrir-

V. 1—53. Matt. 28, 1—20. Mark. 16, 1—20. Jóh. 20, 1—25. V. 13. a. Þeim, nfl. Lærisveinum Jesú, sem høfdu adhyllst hans kénningu, en ekki voru hans postular.

lídar fólks vors framseldu hann til dauda, og krossfestu hann. 21. En vér hugsudum ad hann mundi vera sá, sem frelsa ætti Ísrael; og ofaná allt þetta, er í dag sá þridji dagur, sídan þetta skédi. 22. Auk þessa hafa konur nokkrar hrædt oss, þær er árla voru vid legstad hans, 23. en fundu ekki líkid, og þóktust hafa sjed Engla, sem høfdu sagt, ad hann væri lifandi; 24. sídan fóru nokkrir af þeim, sem med oss vóru, til legstadarins, og fundu allt, eins og konurnar høfdu sagt, en hann sáu þeir ekki. 25. Þá sagdi hann vid þá: en hvad þér erud heimskir, og tregir á ad trúa því, sem Spámennirnir hafa sagt! 26. átti ekki Kristur ad lída þetta og inngánga svo í sína dýrd? 27. byrjadi hann þá á Móses og øllum Spámønnunum, og útlagdi fyrir þeim allt þad í ritníngunum, er hljóddi uppá hann. 28. Nú tóku þeir ad nálgast þorpid, til hvørs þeir ætludu, lét hann þá, sem ætladi hann lengra ad fara; 29. en þeir bádu hann innilega ad vera hjá þeim, og søgdu: vertu hjá oss, því ad kvøld er komid og dagur lidinn; fór hann þá inn í þorpid og var med þeim. 30. En svo bar vid, þá hann sat til bords med þeim og hann tók braudid, gjørdi Gudi þakkir, braut þad og deildi medal þeirra, 31. ad þá opnudust þeirra augu, svo þeir þekktu hann, en þá hvarf hann þeim. 32. Þá søgdu þeir hvørr vid annan: hitnadi okkur ekki um hjarta = rætur, þá hann taladi vid okkur á vegínum og útlagdi fyrir okkur Ritníngarnar? 33. Stódu þeir þá strax upp og fóru aptur til Jerúsalem; þar fundu þeir þá ellefu samansafnada, og þá, sem med þeim voru, 34. sem søgdu, ad Drottinn væri sannarlega upprisinn og hefdi birtst Símoni; 35. en hinir søgdu frá því, sem vid hafdi borid á vegínum, og hverninn þeir hefdu þekkt hann, í því hann braut braudid.

36. Þegar þeir vóru ad tala um þetta, stód hann sjálfur medal þeirra og sagdi: fridur sé med ydur! 37. vid þetta urdu þeir nærsta hræddir, því þeir hugsudu ad þeir sæu anda; hann mælti: 38. hvad hrædist þér, og hví vakna hjá ydur slíkar hugrenníngar? 39. skodid hendur mínar og fætur, ad þad er eg. Þreifid á mér, og gjætid ad; andi hefir hverki hold né bein, eins og þér sjáid mig hafa; 40. og þegar hann hafdi þetta mælt, sýndi hann þeim hendur sínar og fætur. 41. En er þeir af føgnudi og undrun ekki vildu trúa þessu, sagdi hann: hafid þér hér nokkud til matar? 42. Þeir løgdu þá fyrir hann stykki af steiktum fiski og nokkud af hunángs = køku, 43. og neytti hann þessa ad þeim ásjáandi.

44. Hann sagdi til þeirra: þetta er þad, sem eg sagdi ydur, medan eg var enn med ydur, ad á mér ætti ad rætast allt þad, sem ritad er um mig í løgbók Móses, Spámønnunum og Sálmunum. 45. Opnadi hann þá hugskot þeirra, svo þeir skildu Ritníngarnar, 46. og sagdi til þeirra: svo er skrifad, þannig átti Kristur ad lída og upprísa frá daudum á þridja degi, 47. og láta í sínu umbodi kunngjøra øllum þjódum sidbót og fyrirgéfníngu syndanna, og skyldi fyrst byrja í Jerúsalem. 48. En þér erud vottar alls þessa. 49. Sjáid, eg mun senda yfir ydur þad, sem minn Fadir hefir heitid a); en þér skulud halda kyrru fyrir í borginni, þar til þér hafid íklædst krapti frá hædum.

50. Sídan fór hann med þeim út til Betaníu, hóf upp hendur sínar og blessadi þá; 51. en medan hann var ad blessa yfir þá, skildist hann frá þeim og vard uppnuminn til himna. 52. En

V. 34. Símóni, þ. e. Pétri. V. 49. *a*. Þ. e. Heilagan anda.

þeir féllu fram og tilbádu hann. Snéru sídan aptur til Jerúsalem nærsta gladir, 53. og voru støduglega í musterinu, lofandi Gud og vegsamandi.

# Jóhannesar Gudspjall.

## 1. Kapítuli.

Uppruni og holdgan Jesú Krists; Vitnisburdur Jóhannesar Skírara; Andrés, Philppus, Pétur, Nathanael og enn ónefndur Lærisveinn finna Jesúm.

1. Í upphafi var Ordid a) og Ordid var hjá Gudi, og Ordid var Gud. 2. Pad var í upphafi hjá Gudi. 3. Allir hlutir eru fyrir pad gjørdir og án þess er ekkert til ordid, sem til er. 4. Í því var líf og lífid var ljós mannanna; 5. og ljósid skein í myrkrinu og myrkrid medtók þad ekki. — 6. Madur nokkurr var sendur af Gudi, hann hét Jóhannes. 7. Pessi kom til vitnisburdar, ad hann vitnadi um ljósid, svo allir trydu fyrir hans vitnisburd. 8. Ekki var hann ljósid heldur átti hann ad vitna um ljósid. 9. Pad var hid sanna ljós, sem upplýsir hvørn mann, er kom í heiminn. 10. Pad var í heiminum og heimurinn var fyrir þad gjørdur og þekkti hann þó ekki. 11. Hann kom til sinna og hans egin medtóku hann ekki. 12. En svo mørgum, sem hann medtóku og á hann trúdu, gjørdi hann kost á ad verda Guds børn, b) 13. ekki þeim, sem fæddir vóru af blódinu, né holdsins vild, né mannsins vilja, heldur af Gudi. 14 Og Ordid vard madur, sem bjó med oss, fullur nádar og sannleika, og vér sáum hans dýrd, dýrd sem þess eingétna Fødursins. 15. Um þennann vitnadi Jóhannes berlega og sagdi: þessi er sá um hvern eg sagdi: eptir mig mun koma sá, sem var fyrri enn eg, því hann var á undan mér. 16. Af hans nægtum høfum vér allir medtekid nád á nád ofan. 17. Løgmálid var oss géfid fyrir hønd Mósis, en nádin og sannleikurinn veittist fyrir Jesúm Krist. 18. Enginn hefir nokkurn tíma sjed Gud, sá eingetni Sonurinn, sem er í Fødursins skauti, hann hefir sagt oss af honum.

19. Og þessi er Jóhannesar vitnisburdur, þegar Gydíngar sendu frá Jerúsalem Presta og Levíta til ad spyrja hann ad, hverr hann væri? 20. Hann játti og neitadi ekki og sagdi: ekki em eg Kristur. 21. Peir spurdu þá: hvad ertú þá? ertú þá Elías? hann svaradi: ekki em eg. Ertú þá Spámadurinn? og hann svaradi: nei! 22 Pá søgdu þeir vid hann: hverr ertú? seg oss þad, svo vér gétum géfid svar þeim, er oss sendu; hvad segir þú af sjálfum þér? 23. Hann svaradi: eg er rødd þess, sem hrópar í eydimørku: gjørid beinann veg Drottins, eins og Esajas Spámadur hefir sagt. 24. En þeir, sem sendir høfdu verid, voru Faríséar. 25. Peir spurdu hann þá og søgdu: hví skírir þú, ef þú ert hverki Kristur,

V. 1. *a.* Sá er heitir Ord, etc. 1 Jóh. 1, 1. 2. 5, 20. V. 2. Ordskv. 8, 22. V. 4. 5, 26. V. 5. 8, 12. V. 9. Kap. 3, 19. V. 13. *b.* Peir áttu ekki ødrum framar kost á Guds barna rétti, sem komnir voru af Gydínga ættum, edur af Gydíngum ættleiddir, heldur þeir, sem Gud kannadist vid, sem sín børn, Kap. 3, 5. Jak. 1, 18. V. 15. Kap. 3, 31. V. 23. Es. 40, 3.

né Elías, né Spámadurinn? 26. Jóhannes svaradi þeim og sagdi: eg skíri í vatni, en sá er nú kominn medal ydar, sem þér þekkid ekki, sá, sem koma mun eptir mig, 27. hvers skóþvengi eg em ekki verdugur ad leysa. 28. Þetta skédi í Bethaníu hinumeginn vid ána Jórdan, þar sem Jóhannes skírdi.

29. Daginn eptir sjer hann Jesúm koma til sín og segir: sjá þad Guds lamb, sem burt ber heimsins synd. 30. Hann er sá, um hvørn eg sagdi: eptir mig mun koma madur, sem var á undan mér; því hann var fyrri enn eg. 31. En eg þekkti hann ekki, en til þess kom eg ad skíra med vatni ad Gydíngar fengju hann ad þekkja.. 32. Jóhannes vitnadi og þetta: eg sá andann nidurfara af himni sem dúfu og nema stadar yfir honum. 33. Eg þekkti hann ekki, en sá, sem sendi mig til ad skíra med vatni, hann sagdi mér: sá, sem þú sjer andann koma yfir og stadnæmast yfir, hann er sá, sem skírir med heilögum Anda. 34. Þetta sá eg og eg vitna, ad þessi sé Sonur Guds.

35. Daginn eptir var Jóhannes þar aptur staddur og tveir af hans Lærisveinum, 36. og er hann horfdi á Jesúm hvar hann gekk, sagdi hann: sjá þad Guds lamb! 37. Þessir tveir Lærisveinar heyrdu hann tala þetta og fóru eptir Jesú. 38. En Jesús leit vid, og þá hann sá þá fara eptir sér, sagdi hann: hvørs leitid þér? 39. Þeir søgdu: Rabbí! (þad þýdir Lærimeistari) hvar áttú heima? hann sagdi: komid og sjáid! 40. þeir komu og sáu og voru hjá honum daginn þann, en þetta gjørdist ad lidnu nóni. 41. Annar af þessum tveimur, sem heyrdu þetta af Jóhannesi og gengu eptir Jesú, var Andrés bródir Símonar Péturs. 42. Hann finnur fyrst bródur sinn Símon og segir vid hann: vid høfum fundid Messías, þad útleggst: sá smurdi, og hann fylgdi honum til Jesú. 43. En er Jesús leit hann sagdi hann: þú ert Símon sonur Jónasar, þú skalt heita Kefas, þad er: bjarg (Pétur). 44. Daginn eptir ætladi Jesús ad fara til Galíleu, hann hitti þá Filippus og sagdi til hans: fylg þú mér! 45. en Filippus var frá Betsaída, borg þeirra Andresar og Péturs. 46. Filippus fann Nathanael og sagdi til hans: vér høfum fundid þann, sem Móses skrifadi um í løgmáls bókinni og spámennirnir, Jesúm son Jóseps af Nasaret. 47. Nathanael svaradi: gétur nokkud gott komid frá Nasaret? Filippus svaradi: kom þú og sjá. 48. Jesús sá Nathanael koma til sín og sagdi um hann: sjá! þessi er sannur Gydíngur, í hvørjum engin svik eru. 49. Nathanael sagdi: hvørnig þekkir þú mig? Jesús svaradi og sagdi til hans: ádur enn Filippus kalladi þig, sá eg þig þar, sem þú varst undir fíkju trénu. 50. Nathanael svaradi og sagdi til hans: Rabbí! þú ert Sonur Guds, þú ert Israels Konúngurinn. 51. Jesús svaradi og sagdi til hans: þú trúir því, af því eg sagdi þér: eg sá þig undir fíkju trénu; annad þessu meira muntu sjá ad sjá. 52. Og hann sagdi til hans: sannlega, sannlega segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá himininn opinn og Engla Guds uppfara og nidurstíga til Mannsins Sonar.

## 2. Kapítuli.

*Brúdkaupid í Kana; fyrsta ferd Jesú til Jerúsalem, og gjørdir þar.*

1. Og á þridja degi a) var haldid brúd-

V. 26. Hér bæta sumar útgáfur vid: sem er mér fremri. V. 29. 3 Mós. 16, 21. 22. V. 40. Hérumbil um 10du stund. V. 46 5 Mós. 18, 18. Esaj. 7, 14. 9, 6. Dan. 9, 25. 26. V. 52. 1 Mós. 28, 12. V. 1. *a.* Eptir ad Jesús kom í Galíleu.

kaup í Kana í Galíleu. 2. Þar var Jesú
módir, en Jesú og hans Lærisveinum var líka
bodid til brúdkaupsins. 3. Og er vín þraut,
sagdi módir Jesú til hans: þeir hafa ekki
vín. 4. Jesús sagdi til hennar: Módir!
hvad kémur þad vid þér og mér? minn tími
er enn ekki kominn. 5. Módir hans sagdi
til þénaranna: hvad helst hann segir ydur,
þad gjørid. 6. En þar voru sex vatns=kér af
steini, sett þángad af því Gydíngar þvo sér
opt, og tók hvørt þeirra tvo edur þrjá mæl=
ira. 7. Jesús sagdi til þeirra: fyllid nú kérin
med vatni og þeir fylltu þau á barma. 8.
Þá sagdi hann til þeirra: ausid nú af og
færid forstødu=manni veitslunnar og þeir
gjørdu svo. 9. En sem hann smakkadi vatn=
id, sem ordid var ad víni og vissi ekki hvadan
þad var komid, (en þénararnir, sem vatnid
jusu, vissu þad), kalladi hann á brúdgumann
og sagdi: 10. allir menn veita fyrst góda
vínid, en þegar géstirnir taka ølvadir ad
verda, þá hid lakara; þú hefir geymt góda
vínid þángad til nú. 11. Þetta, sem Jesús
gjørdi í Kana í Galíleu, var þad fyrsta af
jarteiknum hans. Og hann opinberadi sína
dýrd og hans Lærisveinar trúdu á hann.

12. Eptir þetta fór Jesús til Kapernaum,
hann og módir hans, brædur og Lærisveinar,
en voru þar ekki marga daga, því Páska há=
tíd Gydínga fór í hønd. 13. Þá ferdadist
Jesús upp til Jerúsalem. 14. Þar fann hann
í musterinu þá, sem seldu naut, saudi og dúf=
ur og þá menn sitjandi, er høfdu umskipti á
peníngum. 15. Hann gjørdi sér þá svipu úr
kødlum og rak alla út úr musterinu, bædi saud=
ina og nautin, steypti nidur peníngum og hratt
um bordum þeirra, sem skiptu um peninga, 16.
en sagdi vid þá, sem dúfurnar seldu: takid
þetta hédan og gjørid ekki hús míns Fødurs
ad verdslunar=búd. 17. En Lærisveinum hans
kom í hug ad skrifad hafdi verid: vandlæti
vegna þíns húss uppetur mig. 18. Gydíng=
ar tóku þá til orda og søgdu til hans: hvørt
jarteikn sýnir þú oss þad, ad þetta megir gjøra?
19. Jesús svaradi þeim og sagdi: nidurbrjótid
þetta musteri, en eg mun reisa þad á þrim døg=
um. 20. Þá søgdu Gydíngar: musteri þetta
var verid ad byggja í fjørutíu og sex ár og
þú mundir reisa þad á þrimur døgum? 21.
En hann taladi um musteri síns líkama. 22.
Þar fyrir kom hans Lærisveinum í hug, þá
hann var risinn frá daudum, ad hann hafdi
þetta talad og trúdu Ritníngum og því, sem
Jesús hafdi talad. 23. Medan Jesús var í
Jerúsalem á Páska hátídinni, trúdu margir á
hann, af því þeir sáu þau teikn, er hann gjørdi.
24. En Jesús trúdi þeim ekki fyrir sér, 25.
því hann þekkti alla og þurfti þess ekki ad
nokkur vitnadi um manninn, því hann vissi
hvad med manninum bjó.

## 3. Kapituli.

Samtal vid Nikódemus um endurfædíngu, trú og góðverk. Jesús skírir og Jóhannes. Þessi vitnar enn um Jesúm.

1. En þar var madur nokkurr af flokki
Faríseanna, er hét Nikódemus, einn af høfd=
íngjum Gydínga. 2. Hann kom til Jesú um
nótt og sagdi til hans: Meistari! vér vitum ad
þú ert Lærifadir kominn frá Gudi, því enginn
gétur gjørt þau jarteikn, sem þú gjørir, nema
Gud sé med honum. 3. Jesús svaradi og sagdi
til hans: sannlega, sannlega segi eg þér: mad=
urinn gétur ekki notid Guds ríkis nema hann
endurfædist. 4. Nikódemus segir til hans:
hvørnig gétur madurinn fædst þá hann er ord=

V. 6. Mark. 7, 3. V. 14. Matt. 21, 12. Lúk. 19, 45. V. 18. Sálm. 69, 10. V. 19. Matt. 26, 61. V. 22. Lúk. 24, 8. V. 24. 6, 64.

inn gamall? gétur hann aptur komist í kvid
módur sinnar og fædst? 5. Jesús svaradi:
sannlega, sannlega segi eg þér: ef madurinn
fædist ekki af vatni a) og anda, gétur hann ekki
fengid inngaungu í Guds riki. 6. Pad, sem
af holdi er fædt, þad er hold, og hvad, sem af
andanum er fædt, þad er andi. 7. Undrast
þú ekki ad eg sagda þér: ydur birjar ad end-
urfædast. 8. Vindurinn blæs hvar sem hann
vill og þú heyrir hans þyt, en ekki veitstú
hvadan hann kémur edur hvørt hann fer; eins
er því varid med hvørn, sem af andanum er
fæddur. 9. Nikódemus svaradi og sagdi til
hans: hvørnig má þetta ské? 10. Jesús svar-
adi og sagdi til hans: ertú Lærimeistari Gyd-
inga og veitst ekki þetta? 11. sannlega, sann-
lega segi eg þér: vér tølum þad vér vitum
og vitnum þad vér sjed høfum og vorn vitn-
isburd medtakid þér ekki. 12. Ef ad þér trú-
id mér ekki þegar eg segi ydur jardneska hluti,
hvørnig munud þér þá trúa, ef eg segi ydur
himneska hluti? 13. Enginn hefir stígid til
himins nema sá, sem niderstě af himni, Manns-
ins Sonur, sem er á himni. 14. Og eins
og Móses upphóf høggorminn á eydimørkinni,
svo á Mannsins Sonur ad verda upphafinn,
15. til þess ad hvørr, sem á hann trúir ekki
tapist, heldur hafi eilíft líf. 16. Því svo elsk-
adi Gud heiminn, ad hann gaf sinn eingétinn
Son til þess, ad hvørr, sem á hann trúir ekki
tapist, heldur hafi eilíft líf. 17. Því ekki
sendi Gud sinn Son í heiminn til ad dæma
heiminn, heldur til þess ad heimurinn frelsad-
ist fyrir hann. 18. Hvørr á hann trúir dæmist
ekki, en hvørr hann trúir eigi, sá er nú þeg-
ar dæmdur, því hann trúdi ekki á nafn Guds
eingétins Sonar. 19. En þessi er dómurinn:
ljósid kom í heiminn og menniruir elskudu myrkr-
id meir enn ljósid, því þeirra verk voru vond.
20. Hvørr, sem íllt adhefst, hatar ljósid og
kémur ekki til ljóssins, svo verk hans verdi ekki
uppvís. 21. En sá, sem sannleikanum hlýdir,
hann kémur til ljóssins, svo verk hans verdi
opinber, því þau eru gjørd ad Guds vilja.

22. Eptir þetta kom Jesús og hans Læri-
sveinar til Júdeu; 23. þar var hann med þeim
og skírdi; en Jóhannes skírdi í Ainon nálægt
Salem, því þar var vatn mikid. Pángad komu
menn og létu sig skíra; 24. því ekki var enn
búid ad kasta Jóhannesi í myrkvastofu. 25. Pá
vard þræta milli Jóhannesar Lærisveina og
Gydings nokkurs um hreinsunina. 26. Og
þeir komu til Jóhannesar og søgdu: Meistari!
sá, sem var med þér hinumegin Jórdanar, hver-
jum þú gafst vitnisburdinn, sjá þú! þessi skír-
ir og allir koma til hans. 27. Jóhannes svar-
adi: madurinn gétur ekkért tekid, nema honum
sé géfid þad af himni. 28. Pér erud mínir vott-
ar ad eg sagdi: ekki em eg Kristur, en eg er
sendur á undan honum. 29. Sá, sem brúd-
urina hefir, hann er brúdgumi, en brúdgum-
ans vinur, sem stendur hjá honum og heyrir
hann, gledst mjøg vid rødd brúdgumans. Pessi
mín gledi er nú fullkomnud. 30. Hann á ad
vaxa en eg ad minka. Sá sem kom ofanad
er øllum ædri. 31. Sá, sem er af jørdu, hann
er af jørdu og talar af jørdu. Sá, sem kom
af himni, er yfir øllum; 32. og þad, sem
hann hefir heyrt og sjed, þad vitnar hann og
enginn medtekur hans vitnisburd. 33. En sá,
sem medtekur hans vitnisburd, sá kannast vid
ad Gud hafi efnt sín fyrirheit. 34. Sá,
sem Gud sendi, talar Guds ord, því ekki géf-
ur Gud audann af skornum skamti. 35. Fad-

V. 5. a Hreinsist af illu og lífgist til góds. V. 6. Róm. 8, 13. 14. Eph. 2, 3. V. 12. Spek. 6. 9, 16. V. 13. Kap. 6, 62. V. 14. 4 Mós. 21, 8. 9. V. 23. Matt. 3, 6. Mark. 1, 5. V. 24. Matt. 14, 3. V. 26. Matt. 3, 15. 1, 17. 34. V. 27. Kap. 19, 11. Jak. 1, 17. V. 31. Kap. 8, 23. V. 33. 1 Jóh. 5, 10.

irinn elskar Soninn og hefir géfid alla hluti í hans hønd. 36. Hverr, sem trúir á Soninn, sá hefir eilíft líf, en hverr, sem ekki hlýdnast Syninum, skal ekki sjá lífid, heldur varir Guds reidi yfir honum.

## 4. Kapítuli.

*Jesus talar vid þá Samversku; umvendir mørgum Samverskum; fer til Galileu og Nasareth; læknar þjón Konúngsmannsins í Kapernaum.*

1. Þegar Drottinn fékk þad ad vita, ad Farísearnir høfdu frétt ad hann drægi til sín fleiri Lærisveina og skírdi fleiri enn Jóhannes — 2. Jesús skírdi samt ekki sjálfur, heldur hans Lærisveinar — 3. fór hann burtu úr Júdeu og kom aptur til Galíleu. 4. En hann vard ad ferdast um Samaríu. 5. Þá kom hann ad borg í Samaríu, sem heitir Sikkar; hún er nálæg því landi, sem Jakob gaf syni sínum Jósep. 6. Jesús, sem var vegmódur, settist nidur vid brunninn, þad var um hádegi. 7. Þar kom þá kona nokkur samversk til ad ausa vatn. Jesús sagdi vid hana: géf þú mér ad drekka! 8. því Lærisveinar hans voru farnir inni borgina ad kaupa mat. 9. Sú Samverska kona ansadi og sagdi til hans: hvørnig stendur á því, ad þú sem ert Gydíngur, bidur mig, konu Samverska, ad géfa þér ad drekka? — því ekki hafa Gydíngar umgengni vid samverska menn.— 10. Jesús svaradi og sagdi henni: ef þú þekktir Guds gjøf og hvørr sá er, sem segir vid þig: géf mér ad drekka, þá mundir þú bidja hann ad géfa þér lifandi vatn. 11. Konan sagdi til hans: þú hefir ekkért ad ausa med, og djúpt er nidur í brunninn; hvadan hefir þú þá hid lifanda vatn? 12. edur ertú meiri fødur vorum Jakob, sem gaf oss brunninn og drakk sjálfur af honum, og hans synir og hans fénadur? 13. Jesús svaradi henni og sagdi: hann þyrstir aptur, sem drekkur af þessu vatni, 14. en hinn, sem drekkur af því vatni, er eg mun géfa, skal ad eilífu ekki þyrsta, heldur mun þad vatn, sem eg mun géfa honum verda í honum ad lind uppsprettandi til eilífs lífs a). 15. Konan segir þá vid hann: Herra! géf mér þetta vatn, ad mig þyrsti ekki framar og eg þurfi ekki ad koma híngad til ad ausa vatn. 16. Jesús sagdi: far þú, kalladú mann þinn og kom þú svo híngad. 17. Konan svaradi og sagdi: eg á engann mann; Jesús sagdi til hennar: rétt segir þú, ad þú egir engann mann; 18. því þú hefir átt fimm menn og sá, sem þú nú hefir, er ekki þinn madur; þad sagdir þú satt. 19. Konan segir þá til hans: Herra! eg sje ad þú ert spámadur. 20. Fedur vorir hafa tilbedid á þessu fjalli, en þér segid: ad í Jerúsalem sé stadurinn hvar egi ad tilbidja. 21. Jesús segir henni: kona! trú þú mér, sá tími kémur, ad þér hvørki munud tilbidja Fødurinn á þessu fjalli, né í Jerúsalem. 22. Þér tilbidjid þad, sem þér ekki þekkid b), vér þekkjum þad, sem vér tilbidjum, því af Gydíngum er hjálprædid. 23. En sá tími kémur og er nú þegar kominn, ad sannir tilbidjendur munu tilbidja Gud í anda og sannleika, því Fadirinn leitar þeirra, sem þannig tilbidja hann. 24. Gud er andi og þeir, sem hann tilbidja, ega ad tilbidja hann í anda og sannleika. 25. Konan segir þá til hans: eg veit ad Messías kémur — Messías er sama og Kristur — þegar

---

V. 36. v. 18. V. 5. 1 Mós. 33, 19. 48, 22. V. 6. Sumar útg: bæta vid: þar var Jakobs brunnur. V. 14. Kap. 6, 35. Esa. 58, 11. *a.* Stærri sælu þekkja menn ekki í þeirri þurrlendu Austurálfu, en nægt af rennanda vatni. V. 22. 1 Mós. 12, 3. Esaj. 2, 3. *b.* Þér Samverskir hafid ekkért fyrir ydar meiningu, ad Gud sé rétt ad dýrka á fjallinu. Vér Gydingar høfum fyrir oss Ritninguna, 5 Mós. 12, 5. 11. 1 Kóng. b. 8, 29. 9, 3.

hann kémur, mun hann kunngjøra oss alla hluti. 26. Jesús segir til hennar: eg, sem vid þig tala, eg er þad. 27. Rétt í því komu hans Lærisveinar ad og hnikkti þeim vid ad hann taladi vid konuna; þó sagdi enginn: hvad ertú ad bidja hana um? edur hvad ertú ad tala vid hana? 28. Konan skildi þar eptir vatns føtu sína og gékk inn í borgina og sagdi fólkinu: 29. komid ad sjá mann, sem sagdi mér allt hvad eg hefi adhafst; mundi ekki þessi vera Kristur? 30. Menn gengu þá út úr borginni og komu til hans. 31. Medan á þessu stód, vøktu Lærisveinarnir máls vid hann og søgdu: 32. Meistari! et þú! hann ansadi þeim: eg hefi þá fædu ad eta, sem þér ekki vitid af. 33. Lærisveinarnir søgdu þá hvørr vid annan: ætla nokkur hafi fært honum mat? 34. Jesús segir þeim: minn matur er ad gjøra vilja þess, sem mig sendi og leysa af hendi hans verk. 35. Segid þér ekki, enn þá eru fjórir mánudir, svo kémur uppskéran? sjá! eg segi ydur, lítid upp og sjáid akrana, þeir eru þegar hvítir til uppskéru. 36. Hvørr, sem uppskér fær laun og safnar ávexti til eilífs lífs, svo ásamt fagni bædi sá, sem sáir og sá, sem uppskér; 37. því hér sannast ordtækid: annar sáir og annar uppskér. 38. Eg hefi sendt ydur til ad uppskéra þad, sem þér ekki unnud ad, adrir unnu og þér hafid gengid ad þeirra vinnu. 39. En margir samverskir menn úr þeirri borg trúdu á hann fyrir konunnar ord, sem vitnadi: hann hefir sagt mér allt, sem eg hefi adhafst. 40. Þegar nú Samverskir komu til hans, beiddu þeir hann ad vera hjá sér, og hann var hjá þeim tvo daga; 41. og miklu fleiri trúdu fyrir hans ord, og søgdu vid konuna: 42. vér trúum nú ekki framar fyrir þín ord, því vér sjálfir høfum heyrt og vitum ad þessi er sannarlega heimsins Frelsari Kristur.

43. En eptir tvo daga héldt hann þadan og fór til Galíleu — 44. en sjálfur Jesús vitnadi ad Spámadur fengi ekki heidur í egin føturlandi. 45. — En þegar Jesús kom í Galíleu, tóku Galíleu menn vid honum, sem høfdu sjed allt þad, er hann á hátídinni hafdi gjørt í Jerúsalem; því líka høfdu þeir sókt þángad hátídina.

46. Þá kom Jesús aptur til Kana í Galíleu, hvar hann hafdi gjørt vatnid ad víni. Og Konúngs madur nokkur var sá, hvørs sonur lá sjúkur í Kapernaum. 47. Þegar þessi frétti ad Jesús væri kominn frá Júdeu til Galíleu, fór hann til hans og bad hann koma ad lækna son sinn; því hann lægi baudvona. 48. Jesús sagdi til hans: þér trúid ekki, nema þér sjáid tákn og stórmerki. 49. Konúngsmadurinn sagdi: Herra! kom þú, ádur enn sonur minn andast! Jesús segir til hans: far þú! sonur þinn lifir. 50. Og madurinn trúdi því ordi, sem Jesús taladi til hans og fór. 51. En ádur enn madurinn komst heim, mættu honum þjónar hans og søgdu: sonur þinn lifir. 52. Þá spurdi hann þá ad, nær honum hefdi farid ad létta? og þeir søgdu honum: í gjær aflídanda hádegi yfirgaf sóttin hann. 53. Þá sá fadirinn ad þad var á þeim tíma, er Jesús hafdi sagt: sonur þinn lifir. 54. Og hann trúdi og allt hans heimafólk. Þetta var hid annad jarteikn, sem Jesús gjørdi, þegar hann kom til Galíleu frá Júdeu.

## 5. Kapítuli.

Jesús læknar hann vid Bethesda laug á Sabbats degi, sem veikur hafdi verid í 38 ár, forsvarar verkid.

1. Eptir þetta var hátíd Gydínga og

V. 35. Matt. 9, 37. V. 43. Matt. 4. 12. V. 44. Matt. 13, 57.

Jesús fór upp til Jerúsalem. 2. En í Jerú=
salem er laug vid saudaportid, sem kallast á
hebresku Bethesda og hefir fim forbyrgi. 3.
Í þessum lá allur fjøldi veikra manna, blind=
ra, halltra, visinna, sem bidu vatnsins hrær=
íngar. 4. Því á vissum tímum stè Engill
nidur í laugina og hrærdi upp vatnid, en
hvørr, sem fór fyrstur í laugina, eptir ad
vatnid hafdi verid hrært, hann vard alheill,
hvør veiki, sem hann þjádi. 5. Madur nokk=
ur var þar, sem veikur hafdi verid í þrjátíu
og átta ár. 6. Þegar Jesús sá þennan liggja
og vissi ad hann hafdi þegar lengi legid,
segir hann vid hann: viltú verda heill? 7.
Sá veiki svaradi honum: Herra! eg hefi
engann til, sem láti mig í laugina, þegar
vatnid hrærist upp; svo þegar eg kém, er
annar kominn nidur í þad á undan mér. 8.
Jesús segir til hans: stattu upp, taktú sæng
þína og gakk; 9. og strax vard madurinn
heill, tók upp sængina og gèkk, en sá dagur
var helgi=dagur. 10. Því søgdu Gydíngar
vid þann læknada mann: þad er helgi=dag=
ur, þér leyfist ekki ad bera sængina. 11.
Hann svaradi þeim: sá sem mig gjørdi heil=
ann, hann sagdi mér: ber þú sæng þína og
gakk. 12. Þeir spurdu þá: hvørr er sá mad=
ur, sem sagdi þér: ber þú sæng þína og
gakk? 13. En sá læknadi vissi ekki hvørr
sá var, því Jesús hafdi í kyrrþey farid burtu,
en þraung var mikil á stadnum. 14. Eptir
þetta hitti Jesús hann í musterinu og sagdi
til hans: sjá! nú ertú ordinn heill, syndga
þú ekki framar, ad ekki vilji þér annad verra
til. 15. Madurinn gèkk burt og kunngjørdi
Gydíngum ad Jesús væri sá, sem hefdi gjørt
sig heilbrigdann, 16. og vegna þess ofsóktu
Gydíngar Jesúm, ad hann gjørdi þetta á
helgum degi. 17. En Jesús svaradi þeim:
Fadir minn vinnur til þess nú, og eg vinn
og. 18. Vegna þess leitudust Gydíngar enn
heldur vid ad ráda hann af døgum, af því
hann ekki einúngis braut helgina, heldur kall=
adi Gud Fødur sinn, og gjørdi sjálfann sig
Gudi jafnann.

19. Jesús svaradi þá og sagdi til þeirra:
sannlega, sannlega segi eg ydur: Sonurinn gèt=
ur ekkért gjørt af sjálfum sér, nema þad, sem
hann sjer Fødurinn gjøra, því þad, sem hann
gjørir, þad gjørir og Sonurinn sømuleidis.
20. Því Fadirinn elskar Soninn og sýnir hon=
um allt þad, er hann sjálfur gjørir; og hann
mun sýna honum meiri verk enn þessi, svo
ydur mun furda. 21. Þvíad eins og Fadir=
inn uppvekur dauda og lífgar, þannig lífgar
og Sonurinn þá, sem hann vill. 22. Ekki
dæmir Fadirinn nokkurn, heldur hefir hann fal=
id Syninum á hendur allann dóm, 23. svo ad
allir heidri Soninn eins og þeir heidra Fød=
urinn. Hvørr, sem ekki heidrar Soninn, sá
heidrar ekki Fødurinn, sem sendi hann. 24.
Sannlega, sannlega segi eg ydur: hvørr, sem
heyrir mitt ord og trúir þeim, sem mig sendi,
sá hefir eilíft líf og kèmur ekki til dóms, held=
ur hefir stigid yfir frá daudanum til lífsins.
25. Sannlega, sannlega segi eg ydur: sá tími
mun koma og er þegar kominn, ad hinir daudu
munu heyra raust Guds Sonar og þeir, sem
heyra, munu lifa. 26. Því eins og Fadirinn
hefir lífid í sjálfum sér, svo gaf hann og Syn=
inum ad hafa lífid í sjálfum sér, 27. og hann
hefir og gèfid honum vald til ad halda dóm,
því hann er Mannsins Son. 28. Undrist
ekki yfir því, ad tími mun koma, á hvørjum
allir þeir, sem í grøfunum eru, munu heyra
hans raust, og þeir munu gánga út; 29. þeir,
sem gott hafa gjørt til upprisu lífsins, en þeir,
sem illt hafa adhafst, til upprisu fordæmíngar=

V. 10. Neh. 13, 19. Jer. 17. 21. V. 14 Matt. 12, 44. V. 23. Matt. 28, 18. V. 27. Dan. 7, 13, 14.

innar. 30. Eg megna ekkért ad gjøra af sjálf=
um mér; eg dæmi sem eg heyri og minn dóm=
ur er réttvís, því eg leita ekki míns vilja,
heldur vilja Fødursins þess, sem sendi mig.
31. Ef eg vitna um sjálfann mig, þá er minn
vitnisburdur ekki sannur. 32. Annar er, sem
vitnar um mig og eg veit ad sá vitnisburdur
er sannur, sem hann vitnar um mig. 33. Þér
hafid sendt til Jóhannesar og hann bar sann=
leikanum vitni. 34. En eg tek ekki vitnisburd
hjá mønnum, heldur tala eg þetta svo ad þér
frelsist. 35. Jóhannes var logandi og skínandi
ljós, en þér hafid ad eins um stund viljad
gledjast vid hans birtu. 36. En eg hefi vitn=
isburd meiri enn Jóhannesar, þau verk, sem
minn Fadir fékk mér ad leysa af hendi, einmidt
þau verk, sem eg gjøri, vitna um mig ad Fad=
irinn hafi sendt mig. 37. Og sjálfur Fadir=
inn, sem sendi mig, hann vitnar um mig.
Hvørki hafid þér nokkurntíma heyrt hans rødd,
né sjed hans ásýnd; 38. og þér hafid ekki í
ydur hans ord varanlegt, þared þér trúid ekki
þeim, sem hann sendi. 39. Rannsakid Ritníng=
arnar, því þar í hugsid þér ad þér hafid ei=
líft líf, og þessar eru þad, sem vitna um mig,
40. og samt viljid þér ekki koma til mín, svo
þér hafid lífid. 41. Eg tek ekki heidur af
mønnunum; 42. en eg þekki ydur, ad þér hafid
ekki Guds kjærleika í ydur. 43. Eg kom í
nafni míns Fødurs og þér takid þó ekki vid
mér. Ef einhvørr kjæmi í sínu egin nafni a),
vid honum mundud þér taka. 44. Hvørnig
getid þér trúad, þér, sem sækist eptir heidri
hvørr hjá ødrum, en leitid ekki heidurs hjá
Gudi einum. 45. Ætlid ekki ad eg muni á=
kjæra ydur hjá Fødurnum, sá er, sem ákjærir
ydur, Móses, hvørjum þér treystid. 46. Ef
ad þér trydud Móses, þá trydud þér og mér,
því hann hefir skrifad um mig. En ef þér
trúid ekki hans bókum, hvør von er þá ad
þér trúid mínum ordum? (5 Mós. 18, 15. fl).

## 6. Kapítuli.

Jesús mettar fimm þúsundir manna; gengur á vatn=
inu; talar um þá fædu, sem dugir til eilífs lífs.

1. Eptir þetta fór Jesús yfirum stødu=vatn=
id Tíberíadis í Galíleu, 2. og margt fólk fylgdi
honum, því menn sáu þau teikn, er hann gjørdi
á þeim sjúku. 3. En Jesús gékk uppá fjall=
id og settist þar nidur med sínum Lærisvein=
um. 4. En þá voru Páskar í nánd, hátíd
Gydínga. 5. Þegar Jesús litadist nú um og
sá ad fjøldi fólks kom til hans, sagdi hann vid
Filippus: hvadan kaupum vér braud svo ad
þessum nægi? 6. — En hann sagdi þetta
til ad reyna hann, því sjálfur vissi hann hvad
hann ætladi sér ad gjøra. — 7. Filippus svar=
adi honum: braud fyrir tvøhundrud peninga b)
duga þeim ekki, svo ad hvørr einn fái lítid
eitt. 8. Þá sagdi Andrés, einn af hans Læri=
sveinum, bródir Péturs Símónar: 9. hér er
eitt úngmenni, sem hefir fimm bygg=braud og
tvo smá=fiska, en hvad er þad handa svo mørg=
um? 10. En Jesús sagdi: látid fólkid setjast
nidur. Í þeim stad var gras mikid. Þá
settust nidur karlmenn ad tølu nær fimm þúsund=
ir. 11. En Jesús tók braudin, og þegar hann
hafdi blessad, fékk hann Lærisveinunum, en
Lærisveinarnir þeim, sem høfdu setst nidur, sømu=
leidis af fiskunum svo mikid, sem þeir vildu.
12. En sem þeir voru mettir, segir hann vid
sína Lærisveina: takid saman leifarnar, sem af=
gángs eru svo ekkért spillist. 13. Þeir søfn=
udu þeim saman og fylltu tólf karfir med
leyfar af þeim fimm bygg=braudum, sem gengu
af hjá þeim, er neytt høfdu. 14. Þeir menn,

V. 43. *a.* Án þess ad hafa þar til gudlega køllun. V. 3—21. Sjá Matt. 14, 13—33. Mark. 6, 32. flg. Lúk. 9, 10. fl. V. 7. *b.* Þad er nálægt hundrad Ríxort heil.

sem sáu þad teikn, er Jesús gjørdi, søgdu þá:
þessi er sannarlega sá Spámadur, sem á ad
koma í heiminn. 15. Jesús, sem vissi ad þeir
mundu koma og taka hann, til þess þeir gjørdu
hann ad Konúngi, veik aptur afsídis einsam-
all uppá fjallid.

16. En er kvøld var komid, fóru Lærisvein-
ar hans nidur ad vatninu og gengu á skipid
17. og fóru yfir vatnid til Kapernaum; þá
var þegar ordid dymmt og Jesús var ekki
kominn til þeirra. 18. En ylgja var á vatn-
inu, því vedur blés mikid. 19. Þegar þeir
høfdu nú róid hérumbil 25 edur 30 skeidrúm a)
sjá þeir Jesúm gángandi á vatninu og kominn
nálægt skipinu og urdu hræddir. 20. Hann
yrdti á þá og sagdi: eg em þad, óttist ekki!
21. Þeir vildu þá taka hann innbyrdis og
strax rann skipid ad landi þar, sem þeir
réru ad.

22. Daginn eptir, þared fólks-fjøldinn,
sem hafdi stadid hinumeginn vid vatnid, vissi
ad ekkért skip hafdi þar verid nema þad eina,
sem hans Lærisveinar høfdu gengid á og ad
Jesús hafdi ekki farid á skipid med sínum
Lærisveinum, heldur ad Lærsveinar hans høfdu
farid einir — 23. en þar komu ønnur skip
frá Tíberías nálægt þeim stad, hvar þeir átu
braudin, eptir ad Drottinn hafdi gjørt þakkir —
24. Og þar ed fólkid nú sá, ad hverki var
Jesús þar né hans Lærisveinar, gékk þad einn-
ig á skipin og kom til Kapernaum til ad leita
ad Jesú. 25. Og sem þeir fundu hann hinu-
meginn vid vatnid, søgdu þeir til hans: Meist-
ari! nær komstu híngad? 26. Jesús svaradi
þeim og sagdi: sannlega, sannlega segi eg yd-
ur: þér leitid mín ekki af því þér sáud teikn-
in, heldnr af því, þér átud af braudunum
og urdud mettir. 27. Aflid ekki ydur þeirrar
fædu, sem eydist, heldur þeirrar fædu,
sem varir til eilífs lífs, hverja Mannsins
Sonur mun géfa ydur, því þennann hefir
Gud, Fadirinn innsiglad b). 28. Þeir søgdu
þá til hans: hvad egum vér ad gjøra, svo vér
vinnum verk Guds? 29. Jesús svaradi og sagdi
til þeirra: þad er Guds verk, ad þér trúid á
þann, sem hann sendi. 30. Þá søgdu þeir
til hans: hver teikn gjørir þú, ad vér sjáum
og trúum þér? hvad vinnur þú? 31. Vorir
fedur átu manna í eydimørku eins og skrifad
er: hann gaf þeim braud af himni ad eta. 32.
Þá sagdi Jesús til þeirra: sannlega, sannlega
segi eg ydur: ekki gaf Móses ydur braud af
himni, en minn Fadir gefur ydur braud af
himni, sem er hid rétta; 33. því þetta Guds
braud er sá, sem sté nidur af himni og géfur
heiminum líf. 34. Þá søgdu þeir til hans:
Herra! géf oss ætíd þetta braud. 35. En
Jesús sagdi til þeirra: eg em lífsins braudid;
sá, sem kémur til mín mun ekki verda húng-
radur og þann mun aldrei þyrsta, sem á mig
trúir. 36. En eg hefi sagt ydur: þér hafid
sjed mig og trúid þó ekki. 37. Allir, sem Fad-
ir minn géfur mér, koma til mín og þann, sem
til mín kémur mun eg ekki útreka. 38. Því-
ad eg hefi nidurstígid af himni, ekki til ad
gjøra minn vilja, heldur vilja þess sem mig
sendi. 39. En þad er vilji þess, sem mig
sendi, ad eg glati engum af þeim, sem hann
gaf mér, heldur uppveki hann á efsta degi. 40.
Því þetta er vilji þess, sem mig sendi: ad hverr,
sem sjer Soninn og trúir á hann, hafi eilift líf og eg
mun uppvekja hann á efsta degi. 41. Þá
møgludu Gydíngar móti honum, af því hann
sagdi: eg em þad braud, sem kom nidur af
himni 42. og søgdu: er ekki þessi Jesús son-
ur Jóseps, hvers fødur og módur vér þekk-

V. 19. *a.* Eitt skeidrúm (*Stadium*) er 625 fet. V. 27. *b.* Audkénnt, sem sinn erindisreka og elskulegan Son.
V. 31. 2 Mós. 16, 14. 15. 4 Mós. 11, 7. Sálm. 78, 24. V. 35. Esa. 55, 1.

ium? hvernig segir hann þá, ad hann hafi
stígid nidur af himni? 43. Jesús svaradi
þeim og sagdi: nøldrid ekki innbyrdis. 44.
Einginn gétur komid til mín, nema Fadirinn
sem sendi mig, dragi hann, og eg mun upp-
vekja þann á efsta degi. 45. Þad er skrifad
í Spámanna bókunum: „þeir munu allir verda
af Gudi uppfræddir"; hvørr sá, sem heyr-
ir Fødurinn og lærir af honum, sá kémur
til mín.

46. Ekki er þad svo ad skilja, sem nokkurr
hafi sjed Fødurinn nema sá, sem er frá Gudi,
hann hefir sjed Fødurinn. 47. Sannlega,
sannlega segi eg ydur: hvørr, sem á mig trú-
ir hefir eilíft líf. 48. Eg em lífsins braud.
49. Fedur ydar átu Manna í eydimørkinni
og dóu. 50. Þetta er braudid, þad af himni
nidurstígna, svo ad madur neyti af því og
ekki deyi. 51. Eg em þad lifanda braud,
sem kom nidur af himni; ef nokkur etur af
þessu braudi, mun hann lifa til eilífdar, og
þad braud, sem eg mun géfa, er mitt hold,
sem eg mun géfa heiminum til lífs. 52. Þá
þráttudu Gydíngar innbyrdis og søgdu: hvørn-
ig gétur þessi géfid oss sitt hold ad eta? 53.
Því sagdi Jesús til þeirra: sannlega, sannlega
segi eg ydur: ef ad þér etid ekki hold Manns-
ins Sonar og drekkid ekki hans blód, hafid
þér ekki lífid í ydur. 54. Hvørr, sem etur
mitt hold og drekkur mitt blód, sá hefir eilíft
líf og eg mun uppvekja hann á efsta degi;
55. því hold mitt er sannarlega fæda og blód
mitt er sannarlega drykkur. 56. Sá, sem
etur mitt hold og drekkur mitt blód, sá
er í mér og eg í honum; 57. eins og sá lif-
andi Fadir sendi mig og eg á Fødurnum lífid
ad þakka, svo mun sá ega mér lífid ad þakka,
sem mig etur a). 58. Þetta er þad braud,
sem komid er af himni, ekki sem manna, er
fedur ydar átu og dóu samt. Sá, sem etur
þetta braud, mun lifa ad eilífu. 59. Þetta
taladi Jesús í samkundunni, þá hann kénndi
í Kapernaum. 60. Margir af hans Læri-
sveinum, sem heyrdu á, søgdu þá: þúng er
þessi ræda, hvørr gétur hlýdt á hana? 61.
En er Jesús vissi med sjálfum sér, ad hans
Lærisveinar møgludu um þetta, sagdi hann:
hneixlar ydur þetta? 62. En ef þér sæud þá
Mannsins Son uppstíga þángad, sem hann
var ádur? 63. Andinn er þad, sem lífgar,
holdid gagnar til einkis; þau ord, sem eg
tala til ydar, eru andi og líf. 64. En þeir
eru nokkrir medal ydar, sem ekki trúa; því
Jesús vissi frá upphafi hvørjir þeir voru,
sem ekki trúdu og hvørr sá var, sem mundi
svíkja hann. 65. Og hann sagdi: vegna þess
sagdi eg ydur: enginn gétur komid til mín,
nema honum sé þad géfid af mínum Fødur.
66. Upp frá þessu fóru margir af Lærisvein-
um hans frá honum og voru ekki framar med
honum. 67. Jesús sagdi því vid þá tólf:
viljid þér einnig fara burt? 68. Símon
Pétur svaradi honum: Herra! til hvørs skul-
um vér fara? 69. þú hefir ord eilífs lífs og
vér høfum trúad og kannast vid ad þú ert sá
heilagi Guds. 70. Jesús sagdi til þeirra:
hefi eg ekki útvalid ydur tólf? og einn af
ydur er djøfull. 71. En hann meinti Júdas
Símonsson frá Karíot, því hann vard sídan
til ad svíkja hann og var einn af þeim tólf.

---

V. 45. Esa. 54, 13. Jer. 13, 33. Mikk. 4, 2 V. 57. Kap. 15, 4. a. Þegar saman eru borin vers 40, 51, 56 og 63 hér á eptir, er audsjed ad þessir talshættir: sjá Soninn og trúa honum, ad eta hold og drekka blód Mannsins Sonar, og ad vera í honum og hafa hann í sér, hafa allir somu þýdingu. Allt þetta á ad gjøra somu verkun: géfa mønnunum eilíft líf V. 69. Matt. 16, 16.

## 7. Kapítuli.

Þjódin dœmir ýmislega um Jesúm á Laufskálahá-
tídinni; Jesús kénnir í musterinu og forsvarar
lœkníngu á Sabbatsdegi; þeim, sem áttu ad taka
hann, fallast hendur þegar þeir heyra hann tala.
Nikódemus forsvarar Jesúm.

1. Eptir þetta ferdadist Jesús um Galíleu,
því hann vildi ekki vera í Júdeu, af því Gyd-
íngar sátu um líf hans. 2. En hátíd Gyd-
ínga, sem kallast Laufskálahátíd, var í nánd.
3. Þá søgdu brœdur hans til hans: far þú
nú hédan til Júdeu, svo ad þínir Lærisveinar,
sem þar eru, sjái þau verk, sem þú gjørir; 4.
því enginn sá gjørir nokkud leynilega, sem vill
verda vídfrægur; sé þad þín ætlan, þá sýndu
þig sjálfann heiminum; 5. því hans brœdur
trúdu ekki heldur á hann. 6. Þá sagdi Jes-
ús til þeirra: minn tími er enn ekki kominn,
en ydar tími er jafnan. 7. Heimurinn hefir
ekki orsøk til ad hata ydur, en mig hatar hann af
því eg vitna um hann, ad hans verk séu vond.
8. Farid þér og sækid þessa hátíd, eg fer ekki
ad sinni til þessarar hátídar, því minn tími
er ekki enn þá kominn. 9. Þetta taladi hann
vid þá og var kyrr í Galíleu. 10. En er
brœdur hans voru farnir, þá fór hann og sjálf-
ur til hátídarinnar, ekki opinberlega, heldur
leynilega. 11. Þar fyrir leitudu Gydíngar
hans á hátídinni og søgdu: hvar er hann?
12. Og kurr var mikill um hann medal fólks-
ins; nokkrir søgdu: hann er gódur madur;
adrir søgdu: nei! heldur tælir hann fólkid. 13.
Þó taladi enginn berlega um hann af ótta
fyrir Gydíngum.

14. En er hátídin var hálfnud, gékk Jesús
í musterid og kénndi. 15. Gydínga furdadi
þad og þeir søgdu: hvørnig veit þessi Ritn-
íngarnar, hann, sem ekki hefir lært? 16. Jesús
svaradi þeim og sagdi: minn lærdómur er ekki
minn, heldur þess, sem mig sendi. 17. Ef
sá er nokkurr, sem vill gjøra hans vilja, hann
mun komast ad raun um, hvad lærdóminn á-
hrœrir, hvørt hann er af Gudi edur eg tala af
sjálfum mér a). 18. Hvørr, sem talar af
sjálfum sér, sá leitar egin lofdýrdar, en sá, sem
leitar þeim heidurs, sem sendi hann, sá er sann-
ordur og prettalaus. 19. Gaf Móses ydur
ekki løgin? og enginn ydar heldur þó løgin.
Hví leitist þér vid ad lífláta mig? 20.
Múgurinn ansadi og sagdi: þú ert vitlaus!
hvørr leitast vid ad lífláta þig? 21. Jesús
svaradi og sagdi þeim: eitt verk gjørda eg og
ydur alla furdar á því. 22. Móses gaf ydur
umskurnina — þó er hún ekki frá Mósi, held-
ur frá fedrunum — og þér umskérid manninn
á Sabbatsdegi. 23. Ef ad madurinn medtek-
ur umskurnina á Sabbatsdegi, án þess Mósis
løg verdi yfirtrodin b), hví reidist þér þá mér
fyri þad, ad eg gjørdi allann mannin heilann
á Sabbatsdegi? 24. Dœmid ekki eptir ásýnd-
um heldur dœmid réttann dóm. 25. Þá søgdu
nokkrir af Jerúsalems mønnum: er þessi ekki
sá, sem þeir leitast vid ad lífláta? 26. og
sjá! hann talar einardlega og þeir segja ekkért
vid hann. Máské høfdíngjarnir med sanni hafi
fengid ad vita ad þessi sé Kristur. 27. Vér
vitum þó hvadan hann er, en þegar Kristur
kémur, veit enginn hvadan hann er. 28. Þá
kalladi Jesús þar, sem hann kénndi í muster-
inu og sagdi: þér þekkid mig og vitid hvad-
an eg em. Af sjálfum mér em eg ekki kom-
inn, heldur sendi mig hinn sanni (Gud), hvørn
þér þekkid ekki. 29. Eg þekki hann, því eg
er frá honum og hann sendi mig. 30. Vegna
þessa leitudust þeir vid ad grípa hann, þó lagdi

V. 2. 3 Mós. 23, 34. V. 15. Matt. 13, 54 og fl. V. 17. *a.* Kénni eptir egin hugþótta. V. 22. 1 Mós. 17, 10. 3 Mós. 12, 3. V. 23. *b.* Nefnil. þau løg, ad á 8da degi skyldi hvørr einn umskérast. Þar af flaut, ad sum børn vard ad umskéra á laugardegi, sem var Gydíngum helgur dagur. V. 24. 5 Mós. 1, 16. 17.

enginn á hann hønd, því hans tími var enn ekki kominn. 31. En margir af fólkinu trúdu á hann og søgdu: þegar Kristur kémur, mun hann þá gjøra fleiri jarteikn enn þessi hefir gjørt?

32. Þegar Faríseарnir heyrdu ad fólkid var þannig ad þrætast á um hann, þá sendu þeir og ædstu Prestarnir þénara til ad handtaka hann. 33. Þar fyri sagdi Jesús til þeirra: enn þá er eg hjá ydur lítinn tíma og fer svo til hans, er mig sendi. 34. Þér munud leita mín og þér munud ekki finna mig og þér gétid ekki komist þángad, sem eg er. 35. Þá søgdu Gydíngar hvørr vid annann: hvørt mun þessi ætla ad fara, ad vér ekki finnum hann? mun hann ætla til þeirra, sem eru útdreifdir medal Grikkja og kénna Grikkjum a)? 36. hvada tal er þetta, sem hann segir? þér munud leita mín og ekki finna: og þér munud ekki géta komist þángad, sem eg er. 37. En á hinum sídasta, þeim mikla degi hátídarinnar, gékk Jesús fram og kalladi segjandi: ef nokkurn þyrstir þá komi sá til mín og drekki. 38. Sá, sem trúir á mig, af hans kvidi munu, eins og Ritníngin segir, lækir lifanda vatns fljóta. 39. En þetta sagdi hann um þann anda, er þeir mundu medtaka, sem á hann trúa, því enn þá var heilagur Andi ekki, af því Jesús var ekki enn þá vegsamlegur ordinn. 40. Þá søgdu margir af fólkinu, sem heyrdu þessa rædu: þessi er sannarlega Spámadurinn. 41. Adrir søgdu: þessi er Kristur; en nokkrir søgdu: mun Kristur þá koma frá Galíleu? 42. Segir ekki Ritníngin: ad af Davíds sædi og frá Betlehem, þeirri borg hvar Davíd var, muni Kristur koma? 43. Þannig vard ágreiníngur um hann medal fólksins. 44. En nokkrir af þeim vildu grípa hann og þó lagdi enginn á hann hendur. 45. Þá komu þénararnir til Prestahøfdíngjanna og Faríseanna og þessir søgdu vid þá: því komud þér ekki med hann? 46. Þénararnir svørudu: aldrei hefir nokkurr madur talad, sem þessi madur. 47. Þá ønsudu Faríseаrnir: erud þér einnig afvega leiddir? 48. trúir nokkurr af høfdíngjunum á hann edur af Faríseum? 49. en þessi múgur, sem ekki þekkir løgin, er bannsetjandi. 50. Nikódemus sá, sem kom til hans um nótt og var einn af þeim, segir: 51. munu løg vor dæma manninn, nema hann sé ádur yfirheyrdur og ransakad þad, sem hann gjørir? 52. Þeir svørudu og søgdu honum: ert þú líka frá Galíleu? ransakadú og sjádú, ad Spámadur hefir aldrei komid í ljós úr Galíleu. 53. Og hvørr fór heim til sín.

## 8. Kapítuli.

*Jesus vill ekki fordæma hórkonuna; talar um sig, sína burtfør og sakleysi; átelur Gydínga fyrir þad þeir séu vondir og ólíkir Abraham.*

1. (En Jesús fór til Olíu=fjallsins 2. og snemma ad morgni kom hann aptur í musterid og allt fólkid kom til hans og hann settist nidur og kénndi því. 3. En þeir skriftlærdu og Faríseаr leiddu til hans konu, sem gripin var í hórdómi og létu hana standa midt á medal þeirra og søgdu til hans: 4. Meistari! þessi kona er stadin ad hórdómi, 5. en Móses baud oss í løgunum: ad þesshátter konur skyldu grýtast; hvad segir þú til þess? 6. En þetta søgdu þeir til ad freista hans, svo þeir hefdu eitthvad ad ákjæra hann fyrir — Jesus laut þá nidur og ritadi med fíngrinum á jørdina. 7. En þared þeir hættu ekki ad

V. 35. *a.* Grikkir kølludust og þeir Gydingar, sem bjuggu fyrir utan Gydíngaland, og medal Grikkja toludu griska túngu. V. 37. Es. 58, 11. 12. Sakk. 14, 8. V. 38. Kap. 4, 14. V. 39. Kap. 16, 7. 17, 5. V. 39. Helgur Andi var ei enn þá farinn ad audsýna sig kroptugann i kristninni. V. 40. Kap. 6, 14. V. 42. Lúk. 2, 4. V 5. 3 Msb. 20, 10.

spyrja, rétti hann sig upp og sagdi til þeirra: sá af ydur, sem er syndlaus, kasti fyrstur steini á hana. 8. Svo laut hann aptur og ritadi á jørdina. 9. En er þeir heyrdu þetta og voru slegnir af þeirra samvitsku, gengu þeir burt hvørr eptir annan frá þeim ædstu til þeirra lægstu, svo Jesús vard einn eptir og konan, sem stód þar. 10. En er Jesús rétti sig upp og sá engann nema konuna, sagdi hann til hennar: kona! hvar eru þeir, sem ákjærdu þig? enginn fordæmdi þig? hún svaradi: Herra! enginn. 11. En Jesús sagdi til hennar: ekki fordæmi eg þig heldur, far þú hédan og syndga ekki hér eptir).

12. Í annad sinn taladi Jesús til þeirra og sagdi: eg em heimsins ljós, hvørr, sem fylgir mér, mun ekki gánga í myrkri, heldur hafa lífsins ljós. 13. Þá søgdu Faríseear til hans: þú vitnar um sjálfann þig, þinn vitnisburdur er ekki sannur. 14. Jesús svaradi þeim og sagdi: þó eg vitni um sjálfann mig, er minn vitnisburdur sannur, því eg veit hvadan eg kom og hvørt eg fer. 15. Þér dæmid eptir holdinu a), eg dæmi engann, 16. en þó eg dæmi um mig, er minn dómur réttur, því eg em ekki einn, heldur bædi eg, og Fadirinn sem sendi mig. 17. Þad er og skrifad í ydar løgum, ad tveggja manna vitnisburdur sé sannur. 18. Eg em sá, sem vitna um mig sjálfann og Fadirinn, sem sendi mig, vitnar um mig. 19. Nú søgdu þeir vid hann: hvar er Fadir þinn? Jesús svaradi: hvørki þekkid þér mig né Fødur minn; ef ad þér þekktud mig, þá þekktud þér og minn Fødur. 20. Þessi ord taladi Jesús hjá fjárkistunni þar, sem hann kénndi í musterinu og enginn lagdi hønd á hann, því enn var ekki hans tími kominn. 21. Þá sagdi Jesús aptur til þeirra: eg fer burt og þér munud leita mín og deya í ydar syndum. Þángad, sem eg fer, gétid þér ekki komist. 22. Þá søgdu Gydíngar: mun hann ætla ad deyda sjálfann sig, þared hann segir: þángad, sem eg fer gétid þér ekki komist? 23. Og hann sagdi til þeirra: þér erud nedanad, eg em ofanad; þér erud af þessum heimi, eg em ekki af þessum heimi. 24. Þess vegna sagda eg ydur: ad þér mundud deya í ydar syndum; því ef þér trúid ekki ad eg sé ofanad b), munud þér deya í ydar syndum. 25. Þeir søgdu þá vid hann: hvørr ertú? Jesús svaradi þeim: einmidt þad, sem eg segi ydur. 26. Eg hefi margt um ydur ad segja og dæma; en sá, sem sendi mig, er sannordur og þad, sem eg heyrdi af honum, þad tala eg til heimsins. 27. En þeir skildu ekki ad hann meinti Fødurinn; 28. því sagdi Jesús til þeirra; þegar þér c) hefjid upp Mannsins Son, þá munud þér þekkja ad eg em þad og ad eg gjøri ekkért af sjálfum mér, heldur eins og Fadir minn kénndi mér, tala eg 29. og sá, sem sendi mig, er med mér; Fadirinn lét mig ekki einann, því eg gjøri ætíd þad, sem honum þókknast.

30. Þegar hann taladi þetta, trúdu margir á hann. 31. Jesús sagdi þá til þeirra Gydínga, sem á hann høfdu trúad: ef ad þér haldid stødugt vid mitt ord, þá erud þér sannarlega mínir Lærisveinar. 32. Þér munud þekkja sannleikann og sannleikurinn mun gjøra ydur frjálsa. 33. Þeir svørudu honum: vér erum Abrahams nidjar og aldrei høfum vér verid þrælar nokkurs manns, hvørnig segir þú þá: þér skulud verda frjálsir? 34. Jesús svaradi þeim: sannlega, sannlega segi eg ydur: sá, sem gjørir syndina, er syndarinnar þræll; 35. en þrællinn er ekki ávalt í húsinu, sonurinn

V. 15. *a.* Ytra áliti. V. 17. 5 Mós. 17, 6. Kap. 19, 15. V. 24. *b.* Sá fyrirheitni. V. 28. *c.* Krossfestid. V. 32. Róm. 6, 14.

verdur þar ætíd. 36. Ef ad sonurinn géfur ydur þá frelsi, svo verdid þér sannarlega frjálsir. 37. Eg veit ad þér erud Abrahams nidjar, en þér leitist þó vid ad lífláta mig, af því mitt ord fær ekki rúm hjá ydur. 38. Eg tala þad, sem eg hefi sjed hjá mínum Fødur og þér gjørid þad, sem þér hafid sjed hjá ydar Fødur. 39. Þeir svørudu og søgdu til hans: Abraham er vor fadir. Jesús sagdi til þeirra: ef ad þér værud Abrahams børn, þá gjørdud þér Abrahams verk. 40. En nú leitid þér eptir ad deyda mig, mann, sem hefi sagt ydur sannleikann, þann, sem eg heyrdi af Gudi, þetta hefdi Abraham ekki gjørt; þér gjørid verk ydar fødurs. 41. Þá søgdu þeir til hans: vér erum ekki hórgétnir, vér høfum einn fødur, nefnilega: Gud. 42. Þá sagdi Jesús til þeirra: ef ad Gud væri ydar fadir, þá elskudud þér mig, því eg em útgenginn og kominn frá Gudi, og eg em ekki kominn af sjálfum mér, heldur hefir hann sendt mig. 43. Hví skiljid þér ekki mál mitt? af því þér gétid ekki heyrt mitt ord. 44. Þér erud af fødurnum, fjandanum og girndum ydar fødurs viljid þér hlýdnast. Hann var manndrápari frá upphafi og var ekki stadfastur í sannleikanum, því sannleiki er ekki í honum; þegar hann talar lýgi, talar hann af sínu egin, því hann er lygari og lýginnar fadir. 45. En mér trúid þér ekki, af því eg tala sannleikann. 46. Hvørr af ydur gétur sannad uppá mig synd? en eg ef tala sannleikann, hví trúid þér mér ekki? 47. Sá, sem er af Gudi, sá heyrir Guds ord; vegna þess heyrid þér ekki, ad þér erud ekki af Gudi. 48. Gydíngar svørudu honum og søgdu: segjum vér ekki rétt, ad þú sért Samverskur og hafir djøful? 49. Jesús svaradi: ekki hefi eg djøful, heldur heidra eg Fødur minn, en þér smáid mig. 50. Eg leita ekki míns heidurs, sá er, sem hans leitar og dæmir. 51. Sannlega, sannlega segi eg ydur: ef ad nokkurr vardveitir mitt ord, sá skal ekki ad eilífu sjá daudann. 52. Þá søgdu Gydíngar til hans: nú vitum vér ad þú hefir djøful; Abraham er dáinn og Spámennirnir, og þú segir: ef nokkurr vardveitir mitt ord, sá mun ad eilífu ekki smakka daudann. 53. Ertú meiri enn fadir vor Abraham, sem er dáinn og Spámennirnir, sem eru dánir? hvílíkann gjørir þú sjálfann þig? 54. Jesús svaradi: ef ad eg vegsamadi sjálfann mig, væri mín vegsemd ekkért. Fadirinn, sem þér kallid ydar Gud, hann er sá, sem vegsamar mig; 55. og þér þekkid hann ekki, en eg þekki hann og ef eg segdi: eg þekki hann ekki, þá væri eg lygari eins og þér; en eg þekki hann og geymi hans ord. 56. Abraham ydar fadir gladdist í þeirri von, ad hann sæi minn dag og sá hann og gladdist. 57. Þá søgdu Gydíngar til hans: þú ert enn ekki fimmtugur og þú hefir sjed Abraham? 58. Jesús sagdi til þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur: ádur enn Abraham vard til, var eg. 59. Þeir tóku þá upp steina til ad kasta á hann, en Jesús faldi sig og fór út úr musterinu.

## 9. Kapítuli.

*Jesús gjørir þann sjáandi, sem blindur var fæddur.*

1. Og á leidinni þadan sá hann mann, sem var blindur borinn 2. og hans Lærisveinar, spurdu hann og søgdu: Meistari! hvørr hefir syndgad, þessi, edur hans foreldrar, ad hann fæddist blindur? 3. Jesús svaradi: hvørki syndgadi þessi né hans foreldrar, heldur er þetta skéd, svo ad Guds verk verdi á honum opinber. 4. Mér ber ad vinna verk þess, er mig sendi, medan dagur er; nóttin kémur, þá enginn gétur unnid. 5. Medan eg em í heiminum, er eg heimsins ljós. 6. Þá hann hafdi

V. 56. 1 Mós. 18, 17. 22, 18. V. 59. Lúk. 4, 30. V. 3. Lúk. 13, 2. 4.

þetta sagt, hrækti hann á jørdina, gjørdi led-
ju úr hrákanum og reyd heuni á augu hins
blinda; 7. og hann sagdi til hans: fardu og
þvodu af þér í lindinni Sílóam (en Sílóam
þýdir: sendur); þá fór hann og þvodi sér
og kom aptur heilskygn. 8. Þá søgdu ná-
grannarnir og þeir, sem høfdu sjed hann ád-
ur, því hann var ølmusu madur: er þessi ekki
sá, sem setid hefir og bedid ølmusu? 9. nokkr-
ir søgdu: þessi er madurinn; en adrir: hann
er honum líkur. Hann sagdi: eg em sá hinn
sami. 10. Þá søgdu þeir til hans: hvørnig
fékkstú sjónina? 11. Hann svaradi og sagdi:
madur nokkurr, sem heitir Jesús, gjørdi ledju
og reyd á mín augu og sagdi vid mig: fardú
til Sílóam og þvodu þér. En er eg var
þángad kominn og hafdi þvegid mér, fékk eg
sjónina. 12. Þá søgdu þeir til hans: hvar
er hann? hann svaradi: eg veit ekki. 13.
Þeir leiddu þá þann, sem ádur hafdi blindur
verid til Faríseanna, 14. — en þá var helgur
dagur, er Jesús bjó til ledjuna og upplauk
hans augum. — 15. Þá spurdu og Farísearnir
hann aptur: hvørnig hann hefdi fengid sjón-
ina; en hann sagdi til þeirra: hann lagdi
ledju vid augu mín, eg þvodi mér og eg sje.
16. Þá søgdu nokkrir af Faríseunum: þessi
madur er ekki frá Gudi, fyrst hann heldur
ekki hvíldar daginn. Adrir søgdu: hvørnig
gétur syndari gjørt þvílíkt teikn? Og þá greindi
á innbyrdis. 17. Þeir segja aptur til hins
blinda: hvad segir þú um hann, þared hann
upplauk þínum augum? en hann sagdi: hann
er Spámadur. 18. En Gydíngar trúdu því
ekki ad madurinn hefdi verid blindur og væri
ordinn heilskygn', fyrr enn þeir kølludu foreld-
ra þess, sem hafdi fengid sjónina, 19. og þeir
spurdu þá og søgdu: er þessi, sem þér segid
hafi verid fæddur blindur, ykkar sonur? hvørn-
ig er hann nú ordinn sjáandi? 20. Hans
foreldrar svørudu þeim og søgdu: vid vitum
ad þessi madur er okkar sonur og ad hann
fæddist blindur. 21. En hvørnig hann hefir
fengid sjónina vitum vid ekki, og hvørr hans
augum hefir upplokid, þad vitum vid ekki held-
ur; hann sjálfur er fulltída madur, spyrjid hann
sjálfann. 22. Þetta søgdu foreldrar hans vegna
þess þeir óttudust Gydínga, af því nú høfdu
Gydíngar samid med sér, ad ef nokkurr mad-
ur vidurkénndi ad hann væri Kristur, skyldi sá
hinn sami rekast úr samkundunni. 23. Þess
vegna søgdu hans foreldrar: hann er fulltída,
spyrjid hann sjálfann. 24. Þá kølludu þeir
fyrir aptur þann mann, sem hafdi verid blind-
ur og søgdu til hans: géf þú Gudi dýrd-
ina a); vér vitum ad þessi madur er syndari.
25. Þá svaradi hann og sagdi: hvørt hann
er syndari veit eg ekki; eitt veit eg, ad eg,
sem var blindur, hefi nú sjónina. 26. En
þeir søgdu til hans aptur: hvad gjørdi hann
vid þig? hvørnig lauk hann upp þínum aug-
um? 27. Hann svaradi þeim: eg hefi þegar
sagt ydur þad, og þér gáfud því ekki gaum,
hvørs vegna viljid þér heyra þad aptur?
viljid þér og verda hans Lærisveinar? 28.
Þá atyrdtu þeir hann og søgdu: þú ert
hans Lærisveinn, en vér erum Mósis Lærisvein-
ar. 29. Vér vitum ad Gud hefir talad vid
Móses, en um þennann vitum vér ekki hvad-
an hann er. 30. Madurinn svaradi og sagdi
þeim: þad er undarlegt ad þér vitid ekki hvad-
an hann er og hann lauk upp mínum augum.
31. Vér vitum þó ad Gud heyrir ekki synd-
ara, en ef nokkurr er gudrækinn og gjørir
hans vilja, þann heyrir hann. 32. Aldrei
hefir þad heyrst, ad nokkurr hafi opnad augu

V. 24. *a.* Ad géfa Gudi dýrdina, er ad bera vyrtingu fyrir Guddóminum, og var sú hugvekja opt géfin þeim, er skyldu vitna fyrir rétti, Jós. 7, 19.

þess, sem var fæddur blindur. 33. Væri
þessi ekki frá Gudi, þá gæti hann ekkert því-
líkt gjört. 34. Þá svørudu þeir og søgdu til
hans: þú ert allur fæddur í synd og þú
kénnir oss? og þeir ráku hann út. 35. Jesús
heyrdi ad þeir hefdu rekid hann út, og er hann
fann hann, sagdi Jesús vid hann: trúir þú á
Guds Son? 36. Hann svaradi og sagdi:
hverr er sá, Herra! ad eg géti á hann trú-
ad? 37. en Jesús sagdi til hans: þú hefir
séd hann og sá, sem vid þig talar, hann er
sá hinn sami. 38. En hann sagdi: eg trúi,
Herra! og féll fram fyrir honum. 39. Og
Jesús sagdi: til dóms er eg kominn í þenna
heim, ad þeir, sem ekki sjá, verdi sjáandi, og
þeir, sem sjá, verdi blindir. 40. Þetta heyrdu
þeir af Faríseum, sem hjá honum vóru og
søgdu vid hann: erum vér þá og blindir? 41.
Jesús sagdi til þeirra: ef ad þér værud blind-
ir, hefdud þér ekki synd, en nú segid þér: vér
sjáum, þar fyrir vidvarir ydar synd.

## 10. Kapítuli.

Jesús kallar sig dyr á saudahúsi og hirdir; á tal vid Gydinga á Vígslu-hátídinni.

1. Sannlega, sannlega segi eg ydur: hverr,
sem ekki gengur um dyrnar inn í sauda-húsid,
heldur fer inn annarstadar, sá er þjófur og
ræníngi. 2. En sá, sem gengur inn um dyrn-
ar, sá er hirdir saudanna; 3. dyra-vørdur-
inn lýkur upp fyrir honum og saudirnir þekkja
hans raust og hann kallar sína saudi med
nafni og fer út med þá. 4. Og eptir ad
hann hefir látid út sína saudi, gengur hann
fyrir þeim og saudirnir fylgja honum, af því
þeir þekkja hans raust; en ókunnugum fylgja
þeir ekki, 5. heldur hlaupa frá honum, af
því þeir þekkja ekki ókunnugra raust. 6. Þessa
eptirlíkíngu sagdi Jesús til þeirra, en þeir
skildu ekki hvad þad var, sem hann taladi til
þeirra. 7. Þessvegna sagdi Jesús aptur til
þeirra: sannlega, sannlega segi eg ydur: eg
em dyr saudanna. 8. Allir, sem komu á und-
an mér eru þjófar og ræníngjar, en saudirnir
gégndu þeim ekki. 9. Eg em dyrnar, ef nokk-
urr gengur inn um mig, sá mun frelsast og
hann mun gánga inn og gánga út og fá
fódur. 10. Þjófurinn kémur ekki til annars
enn ad stela, drepa og skémma. Eg em kom-
inn til þess, ad þeir hafi líf og nægtir. 11.
Eg em gódi hirdirinn; sá gódi hirdir géfur
líf sitt út fyri saudina; 12. en leigulidinn og
sá, sem ekki er hirdir og á ekki saudina, hann
sjer úlfinn koma og yfirgéfur saudina og flýr
og úlfurinn grípur þá og tvístrar saudunum,
13. en leigulidinn flýr, af því hann er leigulidi
og hirdir ekki um saudina. 14. Eg em gódi
hirdirinn, eg þekki mína og mínir þekkja mig,
eins og eg þekki Fødurinn og Fadirinn þekkir
mig; 15. og eg géf út lífid fyrir saudina. 16.
Eg hefi adra saudi, sem ekki eru af þessu sauda-
húsi, þá birjar mér og ad leida a) og þeir
munu heyra mína raust og þar mun verda ein
hjørd og einn hirdir. 17. Þess vegna elskar
Fadirinn mig ad eg læt mitt líf, svo ad eg
taki þad aptur. 18. Enginn tekur þad af
mér, heldur læt eg þad sjálfviljuglega. Eg
hefi vald til ad láta þad og vald til ad taka
þad aptur. Þetta bodord hefi eg medtekid af
mínum Fødur. 19. Af þessum ordum vard
aptur ágreiníngur millum Gydínga. 20. Marg-
ir af þeim søgdu: hann hefir djøful og er
ódur, hví hlýdid þér á hann? 21. adrir
søgdu: þessi ord eru ekki djøful-óds manns
ord, mun djøfull géta opnad augu blindra?
22. En musteris-vígslu-hátídin var haldin í

V. 39. Matt. 13, 13. V. 8. Jer. 23, 2. V. 16. a. Sjá 4 v. V. 22. 1 Makkab. 4, 59.

Jerúsalem og þá var vetur. 23. Og Jesús var á gángi í musterinu í forbyrgi Salómons. 24. Þá flykktust Gydíngar ad honum og søgdu: hversu lengi ætlar þú ad halda sálu vorri í efa? ef þú ert Kristur, þá segdú oss þad einardlega. 25. Jesús svaradi þeim: eg hefi sagt ydur þad, en þér trúid ekki. Þau verk, sem eg gjøri í míns Fødurs nafni, þau vitna um mig: 26. en þér trúid ekki, því þér erud ekki af mínum saudum. 27. Eins og eg sagda ydur, þekkja mínir saudir mína raust og eg þekki þá og þeir fylgja mér, 28. og eg géf þeim eilíft líf og þeir skulu aldrei ad eilífu týnast, eingin skal slíta þá úr minni hendi. 29. Fadir minn, sem hefir géfid mér þá, er meiri enn allir og enginn gétur slitid þá úr hendi míns Fødurs. 30. Eg og Fadirinn vid erum eitt. 31. Gydíngar tóku þá upp aptur steina til ad grýta hann. 32. Jesús sagdi vid þá: mørg gódverk sýnda eg ydur frá mínum Fødur, fyrir hvert af þessum verkum grýtid þér mig? 33. Gydíngar svørudu honum og søgdu: vér grýtum þig ekki fyrir gott verk, heldur fyrir gudlast og fyrir þad ad þú, sem ert madur, gjørir sjálfann þig ad Gudi. 34. Jesús svaradi þeim: er ekki skrifad í ydar løgum a): „eg hefi sagt: þér erud Gudir". 35. Ef (Ritníngin) kallar þá Gudi, til hverra Guds ord skédi b) og Ritníngin gétur ekki raskast, 36. megid þér þá segja vid þann, sem Fadirinn vígdi og sendi í heiminn: „þú gudlastar" af því eg sagdi: eg em Sonur Guds. 37. Ef eg gjøri ekki verk míns Fødurs, þá trúid mér ekki. 38. En ef eg gjøri þau, þó þér ekki viljid trúa mér, þá trúid samt verkunum, svo þér þekkid og sannfæríst um, ad Fadirinn er í mér og eg í Fødurnum. 39. Þá leitudust þeir vid aptur ad taka hann, 40. en hann gékk þeim úr greipum og fór aptur yfir um Jórdan, til þess stadar hvar Jóhannes fyrst skírdi c) og var þar. 41. Og margir komu til hans og søgdu: Jóhannes gjørdi ad sønnu ekkert jarteikn, en allt hvad Jóhannes sagdi um þennann, er satt. 42. Og margir trúdu þar á hann.

## 11. Kapítuli.

*Jesús uppvekur Lasarus; Kaífas rædur til ad deyda hann; Jesús fordar sér.*

1. Madur nokkurr, ad nafni Lasarus, lá veikur, hann var frá Bethaníu, úr þorpi Maríu og Mørtu systur hennar. 2. (En María var sú, sem smurdi Drottinn med smyrslum og þerradi fætur hans med hár-lokkum sínum). 3. Hennar bródir Lasarus var veikur. Þá sendu þær systur til hans og létu segja honum: Herra! sá, sem þú elskar, hann er veikur. 4. En er Jesus heyrdi þad, sagdi hann: þessi sótt er ekki til dauda, heldur Gudi til dýrdar, svo ad Guds Sonur vegsamist fyrir hana. 5. En Jesús elskadi Mørtu og systur hennar og Lasarus. 6. Þegar hann heyrdi ad Lasarus væri sjúkur, var hann ad sønnu kyrr í tvo daga á þeim stad hvar hann dvaldi; 7. en eptir þad sagdi hann til sínna Lærisveina: vér skulum fara aptur í Júdeu. 8. Lærisveinarnir søgdu til hans: nýlega ætludu Júdarnir ad grýta þig, ætlar þú nú ad fara þángad aptur? 9. Jesús svaradi: eru ekki tólf stundir í deginum? gángi madur á degi rasar hann ekki, því hann sjer ljós þessa heims; 10. en ef hann gengur á nóttu, þá rasar hann, því ljósid vantar. 11. Þetta taladi hann og eptir

V. 23. 1 Kóng. 6, 3. V. 31. Kap. 8, 59. V. 34. Sálm. 82, 6. 2 Mós. 22, 8. 9. *a.* Allar bækur Gamla Testamentisins kølludu Gydingar løg sín. V. 35. *b.* Guds ord skedi til spámannanna, þegar þeir fengu køllun ad boda hans vilja eda brýna fyrir Gydingum bodord Guds i hans umbodi. V. 39. Kap. 8, 59. V. 40. *c.* Kap. 1, 28. V. 10. Kap. 9, 4.

þad sagdi hann vid þá: Lasarus vinur vor er
sofnadur, en eg fer nú til ad vekja hann. 12.
Þá sögdu hans Lærisveinar: Herra! ef hann
er sofnadur, þá mun honum batna. 13.
En Jesús taladi um hans dauda, þeir þar á
móti héldu ad hann taladi um náttúrlegann
svefn; 14. því sagdi Jesús þeim þá berlega:
15. Lasarus er dáinn og þad gledur mig ydv-
ar vegna, ad vér ekki vorum þar, svo ad þér
trúid! en — förum nú til hans. 16. Þá sagdi
Tómás (þad þýdir: Tvíburi) vid sína med-
lærisveina: vér skulum fara líka, svo ad vér
deyum med honum. 17. En er Jesús kom,
hafdi Lasarus þegar legid fjóra daga í gröf-
inni. 18. (En Betanía var nálægt Jerúsalem,
hérumbil 15 skeidrúma a) þadan) 19. og margir
Gydíngar voru komnir til Mörtu og Maríu
til ad hugga þær eptir bródur þeirra. 20.
Þegar Marta heyrdi nú ad Jesús kjæmi, fór
hún móti honum, en María sat heima í hús-
inu. 21. Þá sagdi Marta vid Jesúm: Herra!
hefdir þú verid hér, væri bródir minn ekki
dáinn. 22. En eg veit líka nú, ad Gud muni
veita þér hvad sem þú bidur hann um. 23.
Jesús sagdi til hennar: bródir þinn mun upp-
rísa. 24. Marta segir til hans: eg veit ad
hann skal upprísa í upprisunni á efsta degi.
25. Jesús sagdi til hennar: eg em upprisan
og lífid, hvörr, sem trúir á mig, hann mun
lifa, þótt hann deyi 26. og hvörr sá, sem
lifir og trúir á mig, hann skal aldrei ad ei-
lífu deya. 27. Trúir þú þessu? Hún sagdi:
Já, Herra! eg hefi trúad ad þú sért Kristur,
sá Guds Sonur, sem í heiminn á ad koma;
28. og í því hún hafdi talad þetta, fór hún burt
og kalladi hljódlega á systur sína Maríu og
sagdi: Meistarinn er hér og vill finna þig.
29. Þegar María heyrdi þetta, stód hún upp
med skyndi og kom til hans. 30. (En Jesús
var enn ekki kominn til þorpsins, heldur var
þar, sem Marta hafdi mætt honum). 31.
Þegar nú Júdarnir, sem voru hjá Maríu í
húsinu og huggudu hana, sáu ad hún gékk út
í skyndi, fóru þeir eptir henni og sögdu: hún
fer út ad gröfinni til ad gráta þar. 32. En
er María kom þángad, sem Jesús var og sá
hann, féll hún honum til fóta og sagdi vid
hann: Herra! hefdir þú verid hér, væri bród-
ir minn ekki dáinn. 33. Þegar Jesús sá hana
nú gráta og þá Júda, sem med henni höfdu
komid líka, komst hann vid ákaflega og hrigd-
ist og sagdi: 34. hvar hafid þér lagt hann?
35. Þeir sögdu til hans: Herra! kom þú og
sjá! Jesús grét. 36. Þá sögdu Júdarnir:
sjá! hvörsu hefir hann elskad hann! 37 En
nokkrir af þeim sögdu: mundi ekki sá, sem opn-
adi augu hins blinda, hafa gétad gjört þad,
ad þessi hefdi ekki dáid? 38. Þá komst Jesús
aptur innilega vid og kom til grafarinnar; en
hún var hellir og steinn fyrir framan. 39.
Jesús sagdi: takid steininn frá! Marta, syst-
ir ens framlidna, segir til hans: Herra! þad
er nú þegar nálykt af honum, því hann er
fjögra nátta. 40. Jesús sagdi til hennar:
sagdi eg þér ekki: ad ef þú trydir, mundir þú
sjá Guds dýrd. 41. Þeir tóku þá steininn
burt, en Jesús hóf upp sín augu og sagdi:
Fadir! eg þakka þér, ad þú hefir bænheyrt
mig. 42. Eg vissi ad sönnu ad þú ávalt
heyrir mig, en vegna mannfjöldans, sem hér
er samankominn, taladi eg, svo þeir skyldu trúa
því, ad þú hafir sendt mig. 43. Og þegar
hann hafdi þetta sagt, kalladi hann hárri
röddu: 44. Lasarus! kom þú út! og sá daudi
kom út vafinn líkblæum á höndum og fótum,
og um andlit hans var sveita dúkurinn.
Jesús sagdi til þeirra: leysid hann og látid
hann fara. 45. Vegna þessa trúdu margir

V. 18. *a.* Skeidrúm 625 fet, 15 skeidrúm 9,375 fet.

á hann af Gydíngum, sem komnir voru til
Maríu og sied høfdu þad, sem Jesús gjørdi,
46. en nokkrir af þeim gengu til Farísæanna
og søgdu þeim hvad Jesús hefdi gjørt.

47. Því søfnudu þeir ædstu prestar og
Faríseár rádinu og søgdu: hvad egum vér ad
gjøra? því þessi madur gjørir mørg jarteikn.
48. Ef vér sleppum honum svona, munu all-
ir trúa á hann og svo koma Rómverjar og
taka vort land og borg. 49. En einn af
þeim, Kaífas, þess árs ædsti prestur, sagdi þeim:
50. þér vitid ekkért og hugleidid ekki, ad þad
er betra ad einn madur deyi fyrir fólkid, svo
ekki fyrirfaríst øll þjódin. 51. En þetta tal-
adi hann ekki af sjálfum sér, heldur spádi
hann, af því hann var ædsti prestur þad árid,
ad Jesús mundi deya fyrir þjódina, og ekki
einúngis fyrir þjódina, 52. heldur og til þess,
ad hann safnadi í eitt þeim sundurtvístrudu
børnum Guds. 53. Upp frá þessum degi
rádgudust þeir því um, ad lífláta hann. 54.
Þess vegna gékk Jesús ekki framar um berlega
medal Gydínga, heldur fór hann þadan í þad
hérad, sem liggur í nánd vid eydimørkina, til
þeirrar borgar, sem heitir Efraim og var
þar nokkurn tíma med sínum Lærisveinum.
55. En nálægir voru páskar Gydínga, og
margir fóru úr héradinu til Jerúsalem fyrir
páskana ad hreinsa sig. 56. Þá leitudu þeir
ad Jesú og søgdu hvørr vid annann þar, sem
þeir stódu í musterinu: hvad sýníst ydur, ad
hann kémur ekki til hátídarinnar? 57. En høf-
udprestarnir og Faríseárnir høfdu géfid þad bod-
ord: ad ef nokkurr vissi hvar hann væri, skyldi
hann segja til, svo þeir gjætu handtekid hann.

## 12. Kapítuli.

*Jesú smurníng; innreid til Jerúsalem; Grikkjar vilja sjá hann.*

1. En sex døgum fyrir páska kom Jesús
til Bethaníu, hvar Lasarus var, sá, sem hafdi
dáid og sem Jesús hafdi vakid upp frá daud-
um. 2. Þá gjørdu þeir honum þar kvøld-
verd og Marta gékk fyrir bordum, en Lasar-
us var einn af þeim, sem sátu til bords med
honum. 3. Þá tók María pund af ómeing-
udum og dýrmætum Nardus-smyrslum og
smurdi Jesú fætur og þerradi med sínum hár-
lokkum fætur hans, en húsid fylltist af ilm
smyrslanna. 4. Þá sagdi einn af hans Læri-
sveinum, Júdas Símonsson frá Karíot, sem
sídan sveik hann: 5. hví eru þessi smyrsli ekki
seld fyrir þrjú hundrud peninga og géfin fá-
tækum. 6. En þetta sagdi hann ekki af því
honum væri annt um fátæka, heldur af því
ad hann var þjófur — hann hafdi fépýng-
juna og bar þad, sem í hana var lagt. 7.
Þá sagdi Jesús: láttu hana vera! þetta hef-
ur hún geymt til míns greftrunar dags; 8.
því ad fátæka hafid þér ætíd hjá ydur, en
mig ekki.

9. Nú fékk mikill fjøldi af Gydíngum ad
vita ad hann væri þar, og þeir komu ekki ein-
úngis vegna Jesú, heldur og til ad sjá Lasar-
us, hvørn hann hafdi uppvakid frá daudum.
10. En ædstu Prestarnir rádgudust um ad deyda
Lasarus; 11. því hans vegna fóru þángad
margir Gydingar og trúdu á Jesúm. 12.
Daginn eptir, þegar sá mikli fjøldi, sem kom-
inn var til hátídarinnar, heyrdi ad Jesús kjæmi
til Jerúsalem, 13. tóku þeir pálma-vidar greinir
og gengu á móti honum og hrópudu: Hósanna!
blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins,
Israels Konúngurinn! 14. En Jesús fékk
sér úngann ansa og settist uppá hann, einsog
skrifad er: 15. „óttast ekki, Síons dóttir!
sjá! þinn Konúngur kémur rídandi á øsnu fola."
16. Þetta skildu ekki hann Lærisveinar í fyrst-
unni, heldur minntust þeir þess, þá Jesús var

V. 13. Matt. 21, 9. V. 15. Es. 62, 6—11. Sak. 9, 9. V. 16. Vegsamlegur, þ. e. uppstiginn til himna.

vegsamlegur ordinn, ad þetta var skrifad um
hann og ad þetta høfdu þeir vid hann gjørt.
17. En fólksfjøldinn, sem med honum var,
vitnadi: ad hann hefdi kallad Lasarus úr grøf-
inni og uppvakid hann frá daudum. 18. Vegna
þess gékk og múgurinn honum á móti, því
menn høfdu heyrt ad hann hefdi gjørt þetta
jarteikn. 19. Þá søgdu Farísearnir hvørr
vid annann: þér sjáid ad þér komid engu til
vegar. Sjá! allur lýdurinn hleypur eptir
honum.

20. En þar voru nokkrir Grikkjar af þeim,
sem komnir voru til ad bidjast fyrir á hátíd-
inni; 21. þessir gengu til Filippusar, sem var frá
Betsaida í Galíleu og bádu hann og søgdu:
Herra! vér viljum sjá Jesúm. 22. Filippus
fór og sagdi Andrési, en Andrés og Filippus
søgdu aptur Jesú. 23. En Jesús svaradi
þeim og sagdi: tíminn er kominn ad Manns-
ins Sonur vegsamist. 24. Sannlega, segi eg
ydur: deyi ekki hveiti-kornid, sem fellur í jørd-
ina, verdur þad ófrjóssamt, en deyi þad, ber
þad mikinn ávøxt. 25. Sá, sem elskar sitt
líf, hann mun missa þad, og sá, sem metur lít-
ils sitt líf í þessum heimi, hann mun vard-
veita þad til eilífs lífs. 26. Ef nokkurr þjón-
ar mér, sá fylgi mér og hvar sem eg er, þar
mun og minn þjón vera, og þann, sem mér
þjónar, mun Fadirinn heidra. 27. Nú er
mín sál óróleg og hvad skal eg segja? Fadir!
frelsa þú mig frá þessari mædu-stundu, en til
þess em eg kominn, ad þessi stund komi yfir
mig. 28. Fadir! gjør nafn þitt vegsamlegt.
Þá kom rødd af himni: eg hefi gjørt þad
vegsamlegt og mun aptur gjøra þad vegsamlegt.
29. Þá sagdi fólkid, sem stód og heyrdi: þar
gékk þruma. Adrir søgdu: Engill taladi vid
hann. 30. Jesús svaradi og sagdi: ekki mín
heldur ydar vegna skédi rødd þessi. 31. Nú
gengur dómur yfir þennann heim, nú mun
høfdíngi þessa heims verda útrekinn, 32. og
þegar eg verd hafinn frá jørdu, mun eg draga
alla til mín. 33. En þetta sagdi hann til
ad benda til hvada daud-daga hann mundi
deya. 34. Mannfjøldinn svaradi honum: vér
høfum heyrt í Ritníngunni, ad Kristur verdi
til eilífdar og hvørninn segir þú þá, ad Manns-
ins Sonur egi ad verda hafinn upp? hvørr
er sá Mannsins Sonur? 35. Þá sagdi Jes-
ús til þeirra: stutta stund verdur ljósid hér
eptir medal ydar; gángid medan þér hafid ljós-
id, svo mirkrid yfirfalli ydur ekki; sá, sem gengur
í mirkri, veit ekki hvørt hann gengur. 36.
Trúid á ljósid, medan þér hafid ljósid, svo ad
þér verdid ljóssins synir. Þetta taladi Jesús
og fór burt og fól sig fyrir þeim. 37. En
þótt hann hefdi gjørt svo mørg teikn fyrir
þeirra augum, trúdu þeir ekki á hann; 38.
svo ad þau ord Esajasar Spámanns rættust,
sem hann hafdi talad: „Drottinn! hvørr trú-
ir vorri prédikun og hvørjum verdur sýnilegur
Drottins armleggur?" 39. Þess vegna gátu
þeir ekki trúad, því Esajas segir á ødrum
stad: 40 „hann hefir blindad þeirra augu og
forherdt þeirra hjørtu, svo þeir sjái ekki med
augunum og skilji ekki med hjartanu og um-
vendi sér, svo ad eg géti læknad þá." 41.
Þetta sagdi Esajas af því hann sá hans
dýrd og taladi um hann. 42. En þó trúdu
margir einnig af høfdíngjunum á hann, en
vegna Faríseanna medkénndust þeir þad ekki,
svo þeir yrdu ekki samkundu-rækir; 43. því
þeir elskudu heidur af mønnum meira enn
heidur af Gudi. 44. En Jesus kalladi og
sagdi: sá, sem trúir á mig, hann trúir ekki á mig,
heldur á þann, sem mig sendi, 45. og sá, sem

V. 25. Matt. 10, 39. V. 32. Kap. 3, 14. V. 34. 2 Sam. 7, 13. Dan. 7, 14. 27. V. 38. Es. 53, 1.
V. 40. Es. 6, 10. Matt. 13, 14. V. 41. Es. 6, 1 og fylgjandi.

sjer mig, hann sjer þann, sem mig sendi.
46. Eg kom ljós í heiminn, svo ad hvørr,
sem á mig trúir, sé ekki í mirkrinu; 47. og þó
einhvørr heyri mín ord og trúi ekki, þá dæmi
eg hann samt ekki, því eg em ekki kominn til
ad dæma, heldur til ad frelsa heiminn. 48.
Sá, sem forsmáir mig og medtekur ekki mín
ord, hefir þann, sem dæmir hann; þad ord-
id, sem eg hefi talad, mun dæma hann á efsta
degi; 49. því eg hefi ekki talad af sjálfum
mér, heldur hefir Fadirinn, sem mig sendi,
géfid mér bodord um þad, hvad eg skyldi segja,
og hvad eg skyldi tala. 50. Og eg veit ad
hans bodord er eilíft líf; þad, sem eg þar
fyrir tala, þad tala eg eins og Fadirinn hefir
mér sagt.

## 13. Kapituli.

*Jesús þvær fætur Lærisveinanna; talar um audmýkt og þann, sem mundi svíkja sig; um innbyrdis kjærleika; Péturs afneitun.*

1. En fyrir Páska hátídina, þar ed Jesús
vissi ad hans stund var komin, ad hann færi
úr heiminum til Fødursíns; og af því hann
hafdi elskad sína sem vóru í heiminum, elskadi
hann þá til enda. 2. Og er Kvøldmáltídin
var biriud og Djøfullinn hafdi nú þegar skotid
í hjarta Júdasar Simonssonar frá Kariot, ad
svíkja hann, 3. og þó Jesús vissi, ad fadir-
inn hefdi gefid sér allt í hendur og ad hann
væri kominn frá Gudi og færi til Guds, 4.
stód hann upp frá kvøldmáltídinni, lagdi af sér
klædin, tók líndúk og girdtist honum. 5.
Eptir þad hellti hann vatni í mundlaug og
tók ad þvo fætur Lærisveinanna og þerra med
líndúk þeim, hverjum hann var girdtur. 6.
Þá hann kom ad Símoni Pétri, sagdi þessi
til hans: skyldir þú, Herra! þvo mína fætur?
7. Jesús svaradi og sagdi: þú skilur ekki nú
þad, sem eg gjøri, en þú munt vita þad hér
eptir. 8. Pétur svaradi: aldrei til eilífdar
skaltú þvo mína fætur. Jesús svaradi: ef eg
fæ ekki ad þvo þig, erum vid skildir ad skipt-
um. Símon Pétur sagdi þá til hans: 9.
Herra! ekki einúngis fæturna, heldur einnig
hendur og høfud. 10. Jesús sagdi til hans: sá,
sem þveginn er, þarf ekki ad þvost nema á
fótum, því hann er allur hreinn annarstadar 11.
og þér erud hreinir, en ekki allir; því hann
þekkti þann, sem sídan sveik hann, þar fyrir
sagdi hann: þér erud ekki allir hreinir.
12. Þegar hann nú var búinn ad þvo þeirra
fætur og hafdi tekid klædi sín, settist hann apt-
ur til bords og sagdi vid þá: skiljid þér hvad
eg hefi gjørt vid ydur? 13. Þér kallid mig
Meistara og Herra og þad er rétt, því eg em
þad. 14. Ef ad eg þá, Meistarinn og Herrann
hefi þvegid ydar fætur, egid þér og ad þvo
hvørr annars fætur; 15. því eg gaf ydur eptir-
dæmi, svo ad þér breytid, eins og eg breytti
vid ydur. 16. Eg segi ydur þad satt: ad
þjóninn er ekki meiri enn húsbóndinn; sá, sem
sendur er, hann er ekki meiri enn sá, sem sendi
hann. 17. Ef þér skiljid þetta, þá erud þér
sælir, ef þér breytid svo. 18. Eg tala ekki
um ydur alla, eg þekki þá, sem eg hefi út-
valid, en Ritníngin verdur ad rætast: sá, sem
etur braud med mér, hefir lypt upp hælnum
á móti mér. 19. Hédanaf segi eg ydur þad,
ádur enn þad skédur, svo þegar þad er fram-
komid, ad þér þá trúid ad eg em a). 20.
Sannlega segi eg ydur: hvørr, sem medtekur
þann, sem eg sendi, sá medtekur mig, en sá,
sem medtekur mig, hann medtekur þann, sem
sendi mig. 21. Þegar Jesús taladi þetta,
komst hann mjøg vid, vottadi og sagdi: sann-
lega segi eg ydur, einn af ydur mun svíkja
mig. 22. Þá litu Lærisveinarnir hvørr uppá

V. 18. Sálm. 41, 10. V. 19. *a.* Sá fyrirheitni.

annan og vissu ekki um hvørn hann taladi.
23. En þar var einn af hans Lærisveinum,
sem sat til borðs næst Jesú, sá, sem Jesús
elskadi. 24. Símon Pétur bendti þessum, ad
hann skyldi spyrja ad, hvørr sá væri, er Jes-
ús taladi um. 25. Hann halladi sér upp ad
Jesú brjósti og sagdi vid hann: 26. Herra!
hvørr er þad? Jesús svaradi: sá er þad,
er eg mun géfa þann bita, er eg nú dýfi í;
þá dýfdi hann í bitanum og rétti ad Júdasi
Símonarsyni frá Kariót. 27. Og eptir þann
bita fór Satan í hann. Þá sagdi Jesús til
hans: hvad þú gjørir, þad gjør þú skjótt.
28. En enginn af þeim, sem til bordsins sátu,
vissi í hvørju skini hann sagdi þetta; 29. því
sumir héldu, af því Júdas hafdi pýngjuna,
ad Jesús hefdi sagt honum: kaup þú þad,
sem vid þurfum til hátídarinnar, ellegar, ad
hann skyldi géfa eitthvad fátækum. 30. Þeg-
ar Júdas hafdi medtekid bitann, gékk hann
strax út, en þá var nótt. 31. Þegar hann
var genginn út, sagdi Jesús: nú er Mannsins
Sonur dýrdlegur ordinn, og Gud er fyrir hann
dýrdlegur ordinn. 32. Ef ad Gud verdur
dýrdlegur fyrir hann, mun Gud sjálfur gjøra
hann dýrdlegann., og nú strax mun hann gjøra
hann dýrdlegann. 33. Kjæru børn! eg verd
nú hédan af skamma stund hjá ydur; þér
munud leita mín og eins og eg sagdi Gyd-
íngum, segi eg ydur nú: þér gétid ekki komist
þángad, sem eg fer. 34. Eg géf ydur nýtt
bodord, ad þér elskid hvørr annann; eins og
eg elskadi ydur, ad þér elskid hvørr annann.
35. Af því munu allir sjá, ad þér erud mín-
ir Lærisveinar, ef ad þér elskist innbyrdis.
36. Símon Pétur ansadi honum: Herra!
hvørt ætlar þú ad fara? Jesús svaradi hon-
um: þángad, sem eg fer, gétur þú ekki fylgt
mér nú; en seinna meir muntú fylgja mér.
37. Pétur sagdi til hans: Herra! hvørs
vegna gét eg ekki fylgt þér nú strax? eg vil
voga lífi mínu fyrir þig. 38. Jesús svaradi
honum: muntú þá voga lífi þínu fyrir mig?
sannlega, sannlega segi eg þér: haninn mun
ekki gala fyrri enn þú verdur búinn ad af-
neita mér þrisvar.

## 14. Kapítuli.

*Jesús talar um sína burtför, bænina, heilagann Anda.*

1. Látid ekki ydar hjarta skélfast; trúid á
Gud og trúid á mig. 2. Í míns Fødurs
húsi eru mørg hýbýli: væri ekki svo, hefdi eg
sagt ydur: 3. eg fer burt ad tilreida ydur stad,
og þegar eg er burtfarinn og hefi tilbúid ydur
bústad, þá mun eg koma aptur og taka ydur
til mín, svo ad þér séud þar, sem eg er. 4.
Þér vitid hvørt eg fer og þekkid veginn. 5.
Tómás segir til hans: Herra! ekki vitum vér
hvørt þú fer, og hvørnig gétum vér þá þekkt
veginn? 6. Jesús ansadi honum: eg em
vegurinn og sannleikurinn og lífid, einginn
kémur til Fødursins, nema fyrir mig. 7. Ef
þér hefdud þekkt mig, þá hefdud þér og þekkt
Fødurinn og hédan í frá þekkid þér hann og
hafid sjed hann. 8. Filippus sagdi til hans:
Herra! sýndú oss Fødurinn og þá nægir oss.
9. Jesús svaradi honum: svo lengi hefi eg
verid hjá ydur og þú, Filippus! ert ekki enn
búinn ad þekkja mig? sá, sem hefir sjed mig,
hefir sjed Fødurinn og hvørnig segir þú: sýndu
oss Fødurinn? 10. Trúir þú ekki, ad eg em í
Fødurnum og Fadirinn í mér? þau ord, sem
eg tala til ydar, þau tala eg ekki af sjálfum
mér; en Fadirinn, sem í mér er, hann gjør-
ir verkin. 11. Trúid mér, ad eg er í Fødurn-
um og Fadirinn í mér; en ef ekki, þá trúid
mér vegna verkanna. 12. Sannlega, sannlega
segi eg ydur: sá, sem trúir á mig og svo

V. 33. Kap. 7, 34. Kap. 8, 21.

hann mun gjöra þau verk, sem eg gjöri, og hann mun gjöra meiri verk enn þessi; 13. því eg fer til míns Föðurs; og hvörs, sem þér biðjið í mínu nafni, það mun eg veita, svo að Faðirinn vegsamist fyrir Soninn. 14. Ef að þér biðjið einhvörs í mínu nafni, mun eg veita það. 15. Ef að þér elskið mig, þá haldið þér mín boðorð. 16. Og eg skal biðja Föðurinn og hann mun gefa yður annann Meistara, svo að hann sé hjá yður eilíflega, 17. sannleiksins anda, sem heimurinn getur ekki meðtekið, því hann sjer hann ekki og þekkir hann ekki, en þér þekkið hann, því hann staðnæmist hjá yður og mun vera í yður. 18. Eg skil yður ekki eptir munaðarlausa; 19. eg mun koma til yðar; innan skamms mun heimurinn ekki sjá mig framar, en þér munuð sjá mig, því eg lifi og þér munuð lifa. 20. Á þeim degi munuð þér þekkja, að eg er í mínum Föður og þér í mér og eg í yður. 21. Sá, sem hefir mín boðorð og heldur þau, hann elskar mig. En Faðir minn mun elska þann, sem elskar mig og eg mun elska hann og sýna mig honum. 22. Júdas sagði þá við hann (en það var ekki Júdas frá Kariot): Herra! hvað kémur til þess, að þú ætlar að sýna þig okkur, en ekki heiminum a)? 23. Jesús svaraði honum og sagði: sá, sem elskar mig, hann mun varðveita mitt orð og Faðir minn mun elska hann, og til hans munum við koma og taka oss bólfestu hjá honum. 24. Sá, sem ekki elskar mig, hann varðveitir ekki mín orð og það orð sem þér heyrið, er ekki mitt, heldur Föðursins, þess, sem mig sendi. 25. Þetta hefi eg talað við yður meðan eg var hjá yður; 26. en Lærimeistarinn, sá heilagi Andi, sem Faðirinn mun senda í mínu nafni, hann mun kénna yður allt og minna yður á allt sem eg hefi talað við yður. 27. Frið sendi eg yður, minn frið géf eg yður, ekki eins og heimurinn géfur, géf eg yður. Látið yðar hjarta hvörki skélfast né hræðast; 28. þér heyrðuð að eg sagði yður: eg fer burt og kém til yðar aptur; ef þér elskuðuð mig, þá gleddust þér af því, að eg fer til Föðursins, því Faðirinn er mér meiri. 29. Og nú hefi eg sagt yður það, áður enn það skéður, svo að þér trúið því, þegar það skéður. 30. Hér eptir mun eg ekki tala margt við yður, því að höfðíngi þessa heims mun koma og í mér hefir hann ekkért. 31. En svo að heimurinn viti að eg elska Föðurinn og að eg gjöri eins og Faðirinn hefir mér boðið, þá standið upp, látum oss fara héðan.

## 15. Kapítuli.

Jesú skilnaðar-ræða er í eptirfylgjandi þremur Kapítulum.

1. Eg em hinn sanni vínviður og Faðir minn er vínyrkju-maðurinn; 2. hvörja þá grein á mér, sem ekki ber ávöxt, afsníður hann en hreinsar sérhvörja frjóssama, svo að hún beri meiri ávöxt. 3. Nú þegar eruð þér hreinir fyrir það orð, sem eg hefi talað til yðar. 4. Verið mér áfastir svo að eg sé með yður. Eins og viðar-greinin getur ekki borið ávöxt af sjálfri sér, nema hún sé föst á vínviðnum, þannig ekki heldur þér, nema þér séuð mér áfastir. 5. Eg em vínviðurinn, þér eruð greinirnar; sá, sem er mér áfastur og eg er með, hann ber mikinn ávöxt, því án mín megnið þér ekkért. 6. Sá, sem ekki er gróðursettur á mér, honum verður snarað út eins og afkvisti og visnar upp; menn safna því saman og kasta því á eld og það brennur. 7. Ef að þér haldið yður að mér og mín orð hafa stað hjá yður, þá megið þér biðja hvörs þér viljið og það mun yður veitast. 8. Með

V. 22. *a.* Þ. e. þeim, sem ekki vildu aðhyllast hans lærdóm. V. 30. Við erum sundurlyndir; hann hatar mig.

því vegsamast Fadir minn, ad þér berid mikinn
ávøxt og þér verdid mínir Lærisveinar. 9.
Eins og Fadirinn hefir elskad mig og eg hefi
elskad ydur, svo verid stadfastir í elskunni til
mín. 10. Ef ad þér haldid mín bodord, þá
munud þér halda minni elsku, eins og eg héldt
bodord míns Fødurs og held hans elsku. 11.
Þetta hefi eg talad til ydar, svo ad minn føgn-
udur verdi hjá ydur varanlegur og føgnudur
ydar fullkominn. 12. Þad er mitt bodord
ad þér elskid hvørr annann eins og eg hefi
elskad ydur. 13. Meiri elsku hefir enginn enn
þá, ad madur láti líf sitt fyrir sína vini. 14.
Þér erud mínir vinir, ef þér gjørid þad, sem
eg hefi bodid ydur. 15. Eg kalla ydur ekki
hédanaf mína þjóna, því þjóninn veit ekki
hvad hans Herra gjørir; en eg hefi kallad yd-
ur vini, því allt þad, sem eg hefi heyrt af
mínum Fødur, þad hefi eg kunngjørt ydur.
16. Þér hafid ekki útvalid mig, heldur hefi
eg útvalid ydur og sett ydur til þess, ad þér
farid og berid ávøxt og ydar ávøxtur verdi
varanlegur; svo ad hvørs þér bidjid Fødurinn
í mínu nafni, þad veiti hann ydur. 17. Þad
býd eg ydur, ad þér elskid hvørr annann. 18.
Ef heimurinn hatar ydur, þá vitid ad hann
hefir hatad mig fyrri enn ydur. 19. Ef þér
værud af heiminum, þá mundi heimurinn lík-
lega elska sitt egid; en af því þér erud ekki
af heiminum, þótt eg hafi ydur útvalid af
heiminum, þá hatar heimurinn ydur. 20.
Munid til þess, er eg sagdi ydur: þjóninn er
ekki meiri enn húsbóndinn. Hafi þeir ofsókt
mig, þá munu þeir ofsækja ydur; hafi þeir
sett út á mína kénningu, þá munu þeir eins
setja út á ydar. 21. En allt þetta munu þeir
gjøra ydur vegna míns nafns, af því þeir
þekkja ekki þann, sem sendi mig. 22. Hefdi
eg ekki komid og talad til þeirra, þá hefdu
þeir ekki synd, en nú hafa þeir enga afbøtun
synd sinni. 23. Sá, sem hatar mig, sá hat-
ar og minn Fødur. 24. Ef eg hefdi ekki gjørt
þau verk á medal þeirra, sem enginn annar
hefdi gjørt, þá hefdu þeir ekki synd; en nú
hafa þeir séd þau og hafa bædi hatad mig
og Fødur minn. 25. En grein þessi í þeirra
helgu bókum hlýtur ad rætast: „þeir høtudu
mig án saka." 26. En þegar Frædarinn kém-
ur, sem eg mun senda ydur frá Fødurnum, sá
sannleiksins andi, sem kémur frá Fødurnum,
hann mun vitna um mig; 27. en þér munud
og vitna um mig, því þér hafid frá upphafi
med mér verid.

## 16. Kapítuli.

1. Þetta sagdi eg ydur, svo ad þér hneixl-
udust ekki: 2. þeir munu gjøra ydur samkundu-
ræka; já, sá tími mun koma, ad hvørr, sem
líflætur ydur, 3. mun þykjast gjøra Gudi þægt
verk og þetta munu þeir gjøra, af því þeir
þekkja hvørki Fødurinn né mig. 4. En þetta
sagdi eg ydur, svo ad þér minnist þess, þegar
ad því kémur, ad eg sagdi ydur þad; en
eg sagdi ydur þad ekki í upphafi, því eg var
med ydur. 5. En nú fer eg til hans, sem
mig sendi og enginn af ydur spyr mig: hvørt
fer þú? 6. heldur hefir hrigd uppfyllt ydar
hjarta, af því eg taladi þetta. 7. En eg segi
ydur sannleikann: þad er ydur til góds, ad eg
fari hédan; því fari eg ekki, mun Frædarinn
ekki koma til ydar, en þegar eg er farinn mun
eg senda hann til ydar. 8. Og þegar hann
kémur, mun hann sannfæra heiminn um synd
og um réttlæti og um dóm. 9. Um synd, af
því þeir trúa ekki á mig; 10. en um réttlæti,
af því eg fer til Fødursins og þér sjáid mig
ekki lengur; 11. en um dóm, af því høfdíngi
þessa heims er dæmdur. 12. Eg hefi enn

V. 25. Sálm. 35, 20, Sbr 69, 5.

margt ad segja ydur, en þér erud ekki med-
tækilegir fyrir það ad sinni; 13. en þegar hann,
sá sannleiks Andi kémur, mun hann leida yd-
ur í allann sannleika, því hann mun ekki tala
af sjálfum sér, heldur mun hann tala það, sem
hann heyrir og kunngjøra ydur það ókomna.
14. Hann mun vegsama mig, því af mínu mun
hann taka og kunngjøra ydur. 15. Allt það, sem
Fadirinn hefir, það er mitt, því sagda eg, ad
hann mundi af mínu taka og kunngjøra ydur.
16. Stutta stund munud þér ekki sjá mig og
stutta stund munud þér sjá mig aptur, því eg
fer til Fødursins. 17. Þá søgdu nokkrir af
hans Lærisveinum hverr vid annann: hvad er
þetta, sem hann segir: stutta stund munud þér
ekki sjá mig og svo munud þér sjá mig stutta
stund aptur; og þetta: eg fer til Fødursins?
18. Þeir søgdu því: hvad er þetta, sem
hann segir: stutta stund? vér skiljum ekki það,
sem hann talar. 19. Jesús vard þess þá var
ad þeir vildu spyrja hann og sagdi til þeirra:
þér spyrjist á um það, ad eg sagdi: stutta
stund munud þér ekki sjá mig og aptur mun-
ud þér sjá mig stutta stund. 20. Sannlega, sannlega
segi eg ydur: þér munud sýta og gráta, en
heimurinn mun fagna; þér munud verda hryggv-
ir, en ydar hrigd mun snúast í føgnud. 21.
Konan, þegar hún fædir, þá hefir hún hrigd,
því hennar tími er kominn; en þegar hún
hefir barnid fædt, minnist hún ekki framar
harmkvælisins fyrir fagnadar sakir, þvíad
madur er í heiminn borinn; 22. eins hafid
þér nú ad sønnu hrigd, en eg mun sjá ydur
aptur og ydvart hjarta mun fagna og ydvarn
føgnud skal enginn af ydur taka. 23. Og á
þeim degi munud þér mig einkis spyrja. Sann-
lega, sannlega segi eg ydur: hvørs þér bidjid
Fødurinn í mínu nafni, það mun hann veita
ydur. 24. Híngad til hafid þér einkis bedid
í mínu nafni; bidjid og þér munud ødlast,
svo ad ydar føgnudur sé fullkominn. 25.
Þetta hefi eg talad til ydar í ordskvidum; sá
tími kémur, ad eg tala ekki lengur vid ydur í
ordskvidum, heldur mun eg berlega segja ydur
af Fødurnum; 26. á þeim tíma munud þér
bidja í mínu nafni og ekki segi eg ydur, ad eg
muni bidja Fødurinn fyrir ydur, 27. því
sjálfur Fadirinn elskar ydur, af því þér hafid
elskad mig og hafid trúad, ad eg sé kominn frá
Gudi. 28. Eg em útgenginn frá Fødurnum
og kominn í heiminn; eg mun aptur yfirgéfa
heiminn og fara til Fødursins. 29. Hans
Lærisveinar segja vid hann: sjá! nú talar þú
berlega og mælir engann ordskvid. 30. Nú
vitum vér ad þú veitst allt og þarft þess ekki
ad nokkurr spyrji þig; þess vegna trúum vér
ad þú sért frá Gudi kominn. 31. Jesús svar-
adi þeim: trúid þér nú? 32. sjá! sá tími
kémur og er nú þegar kominn, ad þér tvístr-
ist, hverr heim til sín og látid mig einann,
en eg em samt ekki einn, því Fadirinn er med
mér. 33. Þetta hefi eg talad til ydar, svo
ad þér hefdud frid í mér. Í heiminum mun-
ud þér hafa þreyngíng, en, verid øruggir! eg
hefi sigrad heiminn.

## 17. Kapítuli.

Jesú bæn til Guds.

1. Þetta taladi Jesús, hóf sín augu til
himins og sagdi: Fadir! tíminn er kominn;
gjør Son þinn dýrdlegann, svo ad Sonurinn
einnig gjøri þig dýrdlegann, 2. eins og þú hefir
géfid honum vald yfir øllu holdi, svo hann
géfi eilíft líf øllum þeim, sem þú gafst honum.
3. En það er eilíft líf, ad þeir þekki þig ein-
ann sannann Gud og þann, sem þú sendir,
Jesúm Krist. 4. Eg hefi gjørt þig dýrdleg-
ann á jørdunni, eg hefi lokid því verki, sem þú
fékkst mér ad vinna; 5. gjør mig nú vegsamleg-
ann, Fadir! hjá sjálfum þér med þeirri dýrd,

sem eg hafdi hjá þér ádur enn heimurinn var.
6. Eg hefi auglýst þitt nafn, þeim mønnum,
sem þú gafst mér af heiminum; þeir voru þínir
og þú gafst mér þá og þeir hafa vardveitt
þitt ord. 7. Nú vita þeir ad allt þad, sem
þú hefir mér géfid, er frá þér, 8. því ad ord
þau, er þú gafst mér, hefi eg géfid þeim;
þeir hafa tekid vid þeim og þeir vita med
sanni, ad eg em kominn frá þér og trúa ad
þú hafir sendt mig. 9. Eg bid fyrir þeim;
ekki bid eg fyrir heiminum, heldur fyrir þeim,
sem þú gafst mér, af því þeir eru þínir; 10. og
allt mitt er þitt, og þad, sem þitt er, þad er
mitt, og eg em fyrir þad dýrdlegur ordinn.
11. Eg verd ekki leingur í heiminum, þessir
verda í heiminum, en eg fer til þín. Hei-
lagi Fadir! vardveit þá í þínu nafni, er þú
gafst mér, svo þeir séu eitt sem vid. 12.
Medan eg var hjá þeim í heiminum, vard-
veitti eg þá í þínu nafni. Eg vardveitti
þá, sem þú gafst mér og einginn þeirra
týndist, nema sá gløtunar sonur, svo ad
Ritníngin rættist. 13. En nú fer eg til
þín og þetta tala eg í heiminum, svo þeir hafi
í sjálfum sér minn føgnud fullkomlega. 14.
Eg hefi géfid þeim þitt ord og heimurinn
hatar þá, því þeir eru ekki af heiminum,
eins og eg er ekki af heiminum. 15. Ekki bid eg
ad þú takir þá úr heiminum, heldur ad þú
geymir þeirra vid illu. 16. Þeir eru ekki af
heiminum eins og eg em ekki af heimin-
um. 17. Helga þú þá med þínum sann-
leika, þitt ord er sannleikur. 18. Eins
og þú sendir mig til heimsins, svo sendi eg
þá til heimsins, 19. og fyrir þá helga
eg sjálfann mig, svo ad þeir séu sann-
leikanum helgadir. 20. En eg bid ekki ein-
úngis fyrir þessum, heldur og fyrir þeim, sem
trúa munu á mig fyrir þeirra ord; 21. svo
ad allir séu eitt, eins og þú, Fadir! ert í
mér og eg í þér, ad þeir og séu eitt í oss,
svo ad heimurinn trúi ad þú hafir sendt mig.
22 Og þann heidur, sem þú gafst mér, hefi
eg géfid þeim, svo þeir séu eitt, eins og vid
erum eitt, 23. eg í þeim og þú í mér, svo þeir
séu fullkomlega sameinadir og heimurinn viti
ad þú sendir mig og elskir þá, eins og þú
elskar mig. 24. Fadir! eg vil ad þeir, sem
þú gafst mér, þeir séu hjá mér þar, sem eg
er, svo þeir sjái mína dýrd, sem þú gafst
mér; því þú elskadir mig fyrr enn verøldin
var grundvøllud. 25. Réttláti Fadir! þó ad
heimurinn þekki þig ekki, þá þekki eg þig og
þessir vita ad þú sendir mig. 26. Eg hefi
auglýst þeim þitt nafn og mun auglýsa þad,
svo ad sú elska, med hvørri þú elskadir mig,
sé í þeim og eg í þeim.

## 18. Kapítuli.

*Jesús er leiddur fyrir þann andlega rétt; fyrir þann veraldlega rétt.*

1. Þegar Jesús hafdi talad þetta, gékk
hann út med sínum Lærisveinum yfir um læk-
inn Kedron. Þar var gras - gardur, þángad
gékk Jesús og hans Lærisveinar. 2. En Júd-
as, sem sveik hann, þekkti og stadinn, því
Jesús var vanur ad koma þángad med sínum
Lærisveinum. 3. Þegar nú Júdas hafdi tek-
id med sér stridsmanna flokkinn og þénara
frá presta - høfdíngjunum og Faríseunum, kom
hann þángad med blysum, skridbyttum og vopn-
um. 4. En Jesús, sem vissi allt, er yfir
hann mundi koma, gékk fram og sagdi: ad
hvørjum leitid þér? 5. Þeir svørudu honum:
ad Jesú frá Nasaret. Jesús sagdi vid þá:
eg em hann. En Júdas, sem sveik hann,
stód hjá þeim. 6. Þegar hann þá sagdi til
þeirra: eg em hann, hopudu þeir á hæl og
féllu til jardar. 7. Hann spurdi þá þar fyr-
ir í annad sinn: ad hvørjum leitid þér? en
þeir søgdu: ad Jesú frá Nasaret. 8. Jesús

svaradi: eg sagdi ydur ad eg væri sá hinn
sami; ef ad þér þá leitid mín, leyfid þessum
ad fara; 9. svo þad ord rættist, sem
Jesús hafdi talad: engum glatadi eg af
þeim, sem þú gafst mér. 10. En Símon
Pétur, sem hafdi sverd, rykkti því, hjó þjón
Presta=høfdíngjans og sneid af honum hægra
eyrad; en sá þjón hét Malkus. 11. Jesús
sagdi þá til Péturs: slídra þú sverd þitt! skylda
eg ekki drekka þann kaleik, sem minn Fadir
hefir mér gefid? 12. Flokkurinn, fyrilidinn og
þjónar Gydínganna gripu nú Jesúm og bundu
hann. 13. Og leiddu hann fyrst til Hannas,
því hann var tengdafadir Kaífasar, sem þad
árid var ædsti Prestur. 14. En Kaífas var
sá, sem gefid hafdi Gydíngum þad atkvædi,
ad gagnlegt væri ad einn madur væri líflát=
inn fyrir þjódina. 15. En Símon Pétur fylgdi
Jesú og annar Lærisveinn, en sá Lærisveinn var
kunnugur þeim ædsta Presti og gékk inn med
Jesú í hús Presta=høfdíngjans, en Pétur stód
fyrir utan dyrnar. 16. Þá gékk út hinn ann=
ar Lærisveinn, sem kunnugur var Presta=høfd=
íngjanum, taladi vid þá þernu, sem gjætti dyr=
anna og leiddi Pétur inn. 17. Þá sagdi þern=
an, sem gjætti dyranna, vid Pétur: ertú og
einn af Lærisveinum þessa manns? hann svar=
adi: ekki em eg. 18. En þar stódu þrælarn=
ir og þénararnir vid eld, sem þeir høfdu gjørt
og vermdu sig, því kaldt var; en Pétur stód
hjá þeim og vermdi sig. 19. Þá spurdi Presta=
høfdínginn Jesúm ad hans Lærisveinum og hans
kénníngu. 20. Jesús svaradi honum: eg hefi
talad opinberlega fyrir heiminum; eg hefi ætíd
kénnt í samkundunum og í musterinu, hvar all=
ir Gydíngar saman koma, og ekkért hefi eg
talad í leyni, hví spyr þú mig? 21. spyr þú
þá, sem heyrt hafa hvad eg hefi talad vid þá;
sjá! þessir vita hvad eg hefi sagt. 22. En
er Jesús taladi þetta, gaf einn af þénurunum,
sem hjá stód, Jesú kinn=hest og sagdi: svar=
ar þú svona Presta=høfdíngjanum? 23. Jes=
ús svaradi honum: hafi eg talad rángt, þá
sannadú þad, en hafi eg talad rétt, hví slær
þú mig? 24. Hannas sendi hann bundinn til
Presta=høfdíngjans Kaífasar. En Símon Pét=
ur stód og vermdi sig. 25. Þeir søgdu þá
vid þann: ert þú og einn af hans Lærisvein=
um? hann neitadi og sagdi: ekki em eg. 26.
Einn af þjónum Presta=høfdíngjans, frændi þess,
sem Pétur hjó af eyrad, segir þá: sá eg þig
ekki í grasgardinum med honum? 27. Þá
neitadi Pétur enn aptur og strax gól haninn.
28. Nú leiddu þeir Jesúm frá Kaífasi til
hallar Lands=høfdíngjans, en þad var snemma
morguns, og þeir gengu ekki sjálfir inn í høll=
ina, svo þeir saurgudust ekki, heldur mættu
neyta Páskalambsins. 29. Pílatus gékk þá út
til þeirra og sagdi: hvørja ákjæru færid þér
gégn þessum manni? 30. Þeir svørudu og
søgdu: væri þessi ekki illrædis madur, þá hefd=
um vér ekki fært þér hann. 31. Pílatus sagdi
þá vid þá: takid þér hann og dæmid hann
eptir ydar løgum. Þá søgdu Gydíngar til
hans: oss leyfist ekki ad lífláta nokkurn, 32.
svo þad rættist, sem Jesús hafdi fyrifram sagt
um þad, hvada daudddaga hann mundi fá. 33.
Þá gékk Pílatus aptur inn í høllina, kalladi
Jesúm til sín og sagdi: ert þú Gydínga Kon=
úngurinn? 34. Jesús svaradi: talar þú þetta
af sjálfum þér, edur hafa adrir sagt þér þad
um mig? 35. Pílatus svaradi: er eg þá Gyd=
íngur? þín þjód og Kénnimanna Høfdíngjarn=
ir færdu mér þig, hvad hefir þú adhafst? 36.
Jesús svaradi: mitt ríki er ekki af þessum
heimi; væri mitt ríki af þessum heimi, þá
hefdu mínir þénarar barist, svo eg kjæmist ekki
á vald Gydínga; en nú er mitt ríki ekki þad=
an. 37. Pílatus sagdi þá vid hann: ertú þá
ekki Konúngur? Jesús svaradi: rétt segir þú

að eg sé Konúngur; til þess em eg fæddur og til þess kom eg í heiminn að eg beri vitni sannleik-anum og hvörr, sem elskar sannleikann, sá hlýð-ir minni röddu. 38. Pílatus svaraði honum: hvað er sannleikur? og í því hann sagði þetta, gékk hann út aptur til Gyðínga og segir við þá: eg finn enga sök hjá honum; 39. en það er venja hjá yður, að eg á Páskum gefi yður einn lausann. Viljið þér þá ekki að eg gefi yður nú lausann Gyðínga Konúnginn? 40. Þeir æptu þá allir á móti og sögðu: ekki þennann, heldur Barabbas; en Barabbas var stigamaður.

## 19. Kapituli.

*Jésús krossfestur og lagður í grofina.*

1. Þá tók Pílatus Jesúm og húðstrýkti hann. 2. En stríðsmennirnir fléttuðu kórónu af þyrnum og settu á hans höfuð og færðu hann í purpura kápu og sögðu: 3. heill sért þú, Konúngur Gyðínga! og þeir gáfu honum pústra. 4. Pílatus gékk þá út aptur og sagði til þeirra: sjá! eg leiði hann nú út aptur til yðar, svo að þér vitið að eg finn enga sök hjá honum. 5. Jesús gékk þá út með þyrnikórónu á höfði og í purpura kápu og Pílatus sagði til þeirra: sjá manninn! 6. En þegar Presta-höfðíngjarnir og þénararnir sáu hann, æptu þeir og sögðu: krossfestú! krossfestú hann! Pílatus sagði: takið þér hann og krossfestið, því að eg finn enga sök hjá honum. 7. Gyðíngar svöruðu honum: vér höfum lög og eptir vorum lögum á hann að deya, því hann hefir gjört sig sjálfann að Guðs Syni. 8. Þegar Pílatus heyrði þetta, varð hann enn hræddari, 9. gékk inní höllina aptur og sagði við Jesúm: hvaðan ertú? en Jesús ansaði honum ekki. 10. Pílatus sagði þá við hann: talar þú ekki við mig? veistú ekki að eg hefi vald til að krossfesta þig og vald til að láta þig lausann? 11. Jesús svaraði: ekki hefðir þú vald yfir mér, nema þér væri gefið það ofanað; því er sá enn sekari, sem ofurseldi mig þér. 12. Upp frá því leitaðist Pílatus við, að láta hann lausann: en Gyðíngar kölluðu og sögðu: ef að þú sleppir honum, þá ertú ekki vinur Keisarans. Hvörr, sem gjörir sig að Konúngi, hann rís á móti Keisaranum. 13. Þegar Pílatus heyrði þetta, leiddi hann Jesúm út og settist á dómstólinn, á þeim stað, sem heitir hinn steinlagði, en á Hebresku Gabbatha. 14. En þá var aðfánga-dagur Páska, hérumbil um hádegi. 15. Nú sagði hann við Gyðínga: þar er yðar Konúngur! Þeir hrópuðu: burt! burt með hann! krossfestú hann! Pílatus sagði til þeirra: á eg að krossfesta yðar Konúng? Þá svöruðu þeir æðstu prestar: vér höfum ekki Konúng nema Keisarann. 16. Þá fékk hann þeim Jesúm að hann yrði krossfestur; en þeir tóku við Jesú og leiddu burt. 17. En hann bar sinn kross og gékk út til þess staðar, sem heitir hausa-skélja staður, á Hebresku Golgata; 18. þar krossfestu þeir hann, og með honum tvo aðra, sinn til hvörrar handar, en Jesúm í miðið. 19. En Pílatus skrifaði líka yfirskrift og festi hana á krossinn; en skrifað var: **Jesús af Nasaret Konúngur Gyðínganna.** 20. Þessa yfirskrift lásu margir Gyðíngar, því sá staður, hvar Jesús var krossfestur, hann var nærri borginni; hún var og skrifuð á Hebresku, Grísku og Látínu. 21. Þá sögðu æðstu prestar Gyðínga við Pílatus: skrifa þú ekki: Konúngur Gyðínganna, heldur að hann hafi sagt: eg em Konúngur Gyðínga. 22. Pílatus svaraði: það, sem eg hefi skrifað, það hefi eg skrifað. 23. En er stríðsmennirnir höfðu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klæði og skiptu í fjóra parta, hvörjum stríðsmanni part, líka kyrtilinn; en kyrtillinn var ekki saumaður, heldur frá ofanverðu niðurúr prjónaður,

24. Þeir søgdu því hvørr vid annann: skér-
um hann ekki í sundur, hlutumst heldur um
hvørr hann skal hafa; svo ad sú Ritníng
rættist, sem segir:" þeir skiptu med sér mínum
klædum og køstudu hlut um minn kyrtil."
25. Þetta gjørdu nú strídsmennirnir. En hjá
krossinum stód Jesú módir og módur-systir
hans, María kona Kleófu og María frá
Magdølum. 26. Þegar Jesús sá nú módur
sína og þann Lærisvein, sem hann elskadi,
standandi þar hjá, sagdi hann til módur sinn-
ar: **Kona!, sjá! þar er þinn sonur!** síd-
an sagdi hann til Lærisveinsins: 27. **sjá!
þar er þín módir!** og frá þeirri stundu
tók Lærisveinninn hana heim til sín. 28.
Eptir þetta, þared Jesús vissi ad allt var nú
þegar fullkomnad, svo ad Ritníngin skyldi
rætast, sagdi hann: „**mig þyrstir**". 29. Þar
var kér fullt af ediki; þeir fylltu njardarvøtt
med edik, settu hann á Isóps-legg og báru
Jesú ad munni. 30. En er Jesús hafdi til
sín tekid edikid, sagdi hann: **þad er fullkomn-
ad;** og hann lét høfudid hníga og gaf
upp andann.

31. En Gydíngar beiddu Pílatus: ad lík-
amirnir væru ekki á krossinum um Sabbats-
daginn, þared adfángadagur var, því ad sá
Sabbats-dagur var mikill. Þeir beiddu
Pílatus ad bein þeirra væru brotin og ofan-
tekin. 32. Þar fyrir komu strídsmennirnir
og brutu fótleggi hins fyrsta og svo hins ann-
ars, sem med honum høfdu verid krossfestir.
33. En, sem þeir komu ad Jesú og sáu ad
hann var þegar dáinn, brutu þeir ekki hans fót-
leggi; 34. en einn af stríds-mønnunum stakk
spjóti í hans sídu og strax kom út blód og
vatn; 35. og sá hefir vitnad þad, sem sá og hans
vitnisburdur er sannur og hann veit ad hann segir
satt, svo ad þér einnig trúid. 36. Því þetta er
skéd svo ad Ritníngin rættist: „bein hans
skulu ekki brjótast." 37. Og á ødrum stad
segir ønnur Ritníng: „þeir munu sjá þann,
sem þeir stúngu."

38. En eptir þetta bad Jósep af Arema-
tía Pílatus, ad hann mætti ofan taka Jesú
líkama: því hann var Jesú Lærisveinn, þó
heimuglegur, af ótta fyrir Gydíngum; og
Pílatus leyfdi þad. 39. Hann fór því til
og tók Jesú líkama; en Nikódemus kom líka,
sá, sem ádur hafdi um nótt komid til Jesú;
hann hafdi med sér hérumbil hundrad pund
af myrru-bløndudu alóe. 40. Þá tóku
þeir Jesú líkama og sveipudu hann í líndúk,
med dýrum smyrslum, eins og Gydínga sidur
er ad búa lík til greftrunar. 41. En þar,
sem Jesús hafdi verid krossfestur, var gras-
gardur og í grasgardinum ný grøf, í hvørja
þángad til enginn hafdi verid lagdur. 42.
Þar løgdu þeir Jesúm vegna adfánga-dags
Gydínga, því grøfin var nærri.

## 20. Kapítuli.

*Jesú upprisa bodud; hann birtist sjálfur Maríu og
sídan Lærisveinunum.*

1. En snemma á fyrsta degi vikunnar, ád-
ur enn bjart var ordid, kémur María frá Mag-
dølum til grafarinnar og sjer ad steinninn er
tekinn frá grøfinni. 2. Hún hleypur þá til
Símonar Péturs og þess annars Lærisveins,
sem Jesús elskadi og segir vid þá: þad er
búid ad taka burt Drottinn úr grøfinni, og
vér vitum ekki hvar hann hefir verid lagdur.
3. Þá fór Pétur út og hinn annar Lærisveinn
og þeir komu til grafarinnar. 4. En þeir tveir
hlupu ásamt og sá annar Lærisveinn hljóp
hradara enn Pétur og kom fyrri ad grøfinni;
5. og þá hann gjægdist inn í grøfina, sá hann
líndúkana liggja þar, en þó gékk hann ekki
inn. 6. Þá kom Símon Pétur, sem seinni vard, og

V. 24. Sálm. 22, 19. V. 28. Sálm. 69, 22. V. 36. 2 Mós. 12, 46. V. 37. Sakk. 12, 10.

hann gékk inn í grøfina og hann sá líka líndúkana
liggja þar 7. og sveita-dúkinn, sem hafdi verid
um hans høfud, ekki hjá lín-dúkunum, held-
ur útaf fyrir sig samanbrotinn á ødrum stad.
8. Þá gékk og inn sá annar Lærisveinn, sem
fyrr hafdi komid til grafarinnar og sá og
trúdi a); 9. því enn þá skildu þeir ekki
Ritnínguna, ad hann ætti ad rísa frá daudum.
10. Svo fóru Lærisveinarnir heim til sín aptur.

11 En María stód hjá grøfinni og grét;
en sem hún grét, 12. gjægdist hún inní grøfina
og sjer tvo Engla hvít-klædda hvar þeir sitja,
annann til høfda, hinn til fóta þar, sem Jes-
ús hafdi legid. 13. Og þeir søgdu til henn-
ar: kona! hví grætur þú? hún svaradi þeim:
af því búid er ad taka burt minn Drottinn
og eg veit ekki hvar hann hefir verid lagdur.
14. Í því hún sagdi þetta, vard henni litid
aptur fyrir sig og þá sá hún Jesúm standa
þar, en hún vissi ekki ad þad var Jesús. 15.
Jesús segir til hennar: kona! hvad græt-
ur þú? ad hvørjum leitar þú? hún, sem
hugsadi ad þetta væri grasgards vørdurinn,
sagdi til hans: Herra! hafir þú borid hann
í burtu, þá segdu mér hvar þú hefir lagt hann
og mun eg sækja hann. 16. Jesús sagdi til
hennar: María! hún snéri sér vid og segir á
Hebresku: Rabbúni! þad er: Lærimeistari.
17. Jesús sagdi til hennar: snertú mig ekki,
því enn þá er eg ekki uppstíginn til Fødur
míns; en fardú til brædra minna og segdu
þeim: eg muni uppstíga til míns Fødurs og
ydar Fødurs, til míns Guds og ydar Guds.
18. María frá Magdølum kémur og segir
Lærisveinunum, ad hún hafi sjed Drottinn og
ad hann hafi talad þetta vid sig.

19. En ad kvøldi hins sama dags, sem var
sá fyrsti í vikunni, og eptir ad búid var ad
læsa dyrum á því húsi, hvar Lærisveinarnir
voru samansafnadir af ótta fyrir Gydíngum,
kom Jesús og stód midt á medal þeirra og
sagdi: fridur sé med ydur! 20. og í því
hann taladi þetta, sýndi hann þeim sínar
hendur og sídu. Þá urdu Lærisveinarnir glad-
ir ad þeir sáu Drottinn. 21. Jesús sagdi þá
aptur til þeirra: fridur sé med ydur! eins og
Fadirinn hefir sendt mig, svo sendi eg ydur;
22. og í því hann sagdi þetta, blés hann á þá og
sagdi: medtakid þér heilagann Anda! 23. hvør-
jum, sem þér fyrirgéfid syndirnar, þeim eru
þær fyrirgéfnar og hvørjum sem þér synjid
fyrirgéfníngar, þeim verdur synjad um fyrir-
géfníngu. 24. En Tómas, þad þýdir: Tví-
buri, einn af þeim tólf, var ekki med þeim
þegar Jesús kom. 25. Þar fyrir søgdu hinir
Lærisveinarnir honum frá, ad þeir hefdu sjed
Drottinn. En hann svaradi þeim: sjái eg
ekki naglaførin í hans høndum og láti fíngur
minn í þau og mína hønd í hans sídu, þá
trúi eg ekki. 26. Og eptir átta daga voru
hans Lærisveinar aptur inni og Tómas med
þeim. Þá kom Jesús þegar búid var ad
læsa dyrum og stód midt ámedal þeirra
og sagdi: fridur sé med ydur! 27. sídan
sagdi hann vid Tómas: kom þú híngad med
þinn fíngur og skoda mínar hendur; kom þú
med þína hønd og legg í mína sídu og vertú
ekki vantrúadur heldur trúadur. 28. Tómas
svaradi og sagdi til hans: Drottinn minn
og Gud minn! 29. Jesús svaradi: af því
þú sást mig, Tómas! trúdir þú; en sælir eru
þeir, sem trúa, þótt þeir ekki sjái. 30. En
hér ad auki gjørdi Jesús mørg ønnur teikn
í augsýn sinna Lærisveina, hvørra ekki er
getid í þessari bók. 31. En þetta er skrif-
ad, svo ad þér trydud, ad Jesús er Krist-
ur Sonur Guds og svo ad þér hafid lífid,
sem á hans nafn trúid.

V. 8. a. Ad Jesús hefdi verid borinn úr grøfinni, eins og María sagdi. V. 29. 1. Pét. 1, 8.

# 21. Kapítuli.

*Jesús birtist sínum Lærisveinum í Galíleu; segir Pétri fyrir hans afdrif.*

1. Eptir þetta birtist Jesús aptur sínum Lærisveinum vid Tiberíadis vatn. En þannig birtist hann: 2. Símon Pétur og Tómas, sem þýdir: Tvíburi, og Natanael frá Kana í Galíleu og Sebedeusar synir og tveir adrir af hans Lærisveinum voru þar ásamt. 3. Símon Pétur segir vid þá: eg vil fara ad fiska. Þeir segja vid hann: vér komum líka med þér. Þeir gengu út og stigu strax á skip; en þá nóttina fengu þeir ekkért. 4. En er dagur var runninn, stód Jesús vid vatnid, samt vissu ekki Lærisveinarnir ad þad var Jesús. 5. Jesús sagdi þá til þeirra: børn! hafid þér nokkud matarkyns? þeir søgdu: nei. 6. Hann sagdi þá vid þá: kastid netinu hægra-megin vid skipid, þá munud þér abla. Þeir køstudu því nú og gátu þá ekki dregid þad fyrir fiski-mergd. 7. Þá segir sá Lærisveinn, sem Jesús elskadi, vid Pétur: þad er Drottinn. En er Símon Pétur heyrdi ad þad væri Drottinn, batt hann ad sér sinn nærkyrtil, því hann var snøgg-klæddur og fleygdi sér í vatnid, 8. en hinir Lærisveinarnir komu á skipinu (því þeir voru ekki lángt frá landi, heldur svo sem tvøhundrud álnir) og drógu netin ad landi, med fiskinum í. 9. En er þeir voru gengnir á land, sjá þeir glædur og fisk lagdan á þær og braud. 10. Jesús segir þá til þeirra: komid med nokkud af fiskunum, sem þér nú veiddud. 11. Símon Pétur fór til og dróg netid á land, fullt af stórum fiskum, hundrad fimmtíu og þremur: en þó þeir væru svo margir, rifnadi netid ekki. 12. Jesús segir vid þá: komid og takid dagverd. En enginn af Lærisveinunum rédist til ad spyrja hann: hvørr ertú? því þeir vissu ad þad var Drottinn. 13. Þá kémur Jesús og tekur braudid og géfur þeim, sømuleidis fiskinn. 14. Þetta var í þridja sinni, sem Jesús birtist sínum Lærisveinum, eptir ad hann var upprisinn frá daudum.

15. En er þeir høfdu matast, segir Jesús vid Símon Pétur: Símon Jónasson! elskar þú mig meir enn þessir? hann svaradi honum: já, Herra! þú veitst ad eg elska þig. Jesús segir til hans: gjæt þú lamba minna. 16. Hann segir aptur í annad sinn til hans: Símon Jónasson! elskar þú mig? hann svaradi honum: já, Herra! þú veitst ad eg elska þig. Jesús segir þá til hans: hird þú saudi mína. 17. Hann segir í þridja sinni til hans: Símon Jónasson! elskar þú mig? þá ángradist Pétur, af því hann sagdi í þridja sinni til hans: elskar þú mig? og hann sagdi til hans: Herra! þú veitst allt, þú veitst ad eg elska þig. Jesús segir til hans: geym þú minna sauda. 18. Sannlega, sannlega segi eg þér: þegar þú varst ýngri girdtir þú þig og gékkst hvørt, sem þú vildir, en þegar þú eldist, muntú útbreida hendur þínar og annar mun girda þig og leida þángad, sem þú vilt ekki. 19. En þetta sagdi Jesús til ad géfa ad skilja, med hvørjum daudadaga hann skyldi vegsama Gud. Og þá hann hafdi þetta talad, sagdi hann vid Pétur: fylg þú mér eptir. 20. Pétur leit vid, sá þann Lærisvein, sem Jesús elskadi, koma á eptir, þann sama, sem um kvøldmáltídina hafdi hallad sér upp ad Jesú brjósti og spurt: Herra! hvørr er sá, sem mun svíkja þig? 21. Þegar Pétur sá þennann, segir hann til Jesú: Herra! hvad verdur um þennann? 22. Jesús svarar honum: ef eg vil ad hann bídi þángad til eg kém, hvad kémur þad vid þig? fylg þú mér eptir. 23. Því barst sú saga út medal Brædranna, ad þessi Lærisveinn mundi ekki deya. — Þó hafdi Jesús ekki sagt vid hann, ad hann mundi ekki deya; heldur: ef

eg vil hann bídi þángad til eg kém, hvad kém-
ur þad vid þig? 24. Þessi er sá Lærisveinn,
sem hefir vitnad um þetta og skrifad þetta og
vér vitum ad hans vitnisburdur er sannur.
25. Margt annad hefir Jesús gjört og ef þad
allt, eitt og sérhvad ætti ad skrásetjast, hugsa
eg ad heimurinn jafnvel ekki mundi rúma þær
bækur, sem þá yrdu skrifadar.

# Postulanna Gjörníngar.

## 1. Kapítuli.

*Jesú himnafør; eindrægni Lærisveinanna; ræda Péturs; Mattías valinn til Postula.*

1. Fyrri frásøguna a) samda eg, kjæri
Teófílus! um allt hvad Jesús gjørdi og kéndi,
2. allt til þess dags er hann var uppnuminn,
eptir ad hann hafdi fyrir heilagann Anda bod-
ord b) gésid Postulunum, þeim er hann útval-
id hafdi; 3. hvørjum hann og birtist lifandi
eptir písl sína, med mørgum órækum kénnimerk-
jum, þared hann lét þá sjá sig í fjørutíu daga
og taladi vid þá um Guds ríki. 4. Nú þá
þeir eitt sinn voru samankomnir, skipadi hann
þeim ad fara ekki burtu úr Jerúsalem, heldur
bída eptir fyrirheiti Fødursins, hvørs þér —
sagdi hann — hafid heyrt mig géta. 5.
Jóhannes skírdi med vatni, en þér skulud skírd-
ir verda med heiløgum Anda, ekki mørgum
døgum eptir þenna. 6. Þegar þeir voru
nú þannig saman komnir, spurdu þeir: ætl-
ardu, Herra! á þessum døgum ad endurreisa
Ísraels ríki? 7. Hann svaradi þeim: þad
er ekki ydar ad vita tídir edur tíma, hvør-
ja Fadirinn hefir sett í sjálfs síns vald;
8. en þér skulud ødlast krapt, þegar heilagur
Andi yfir ydur kemur, og þér skulud mínir
vottar vera í Jerúsalem og í øllu Gydínga-
landi og í Samaríu og til jardarinnar endi-
marka. 9. Í því hann sagdi þetta, lyptist
hann, ad þeim ásjáandi, í lopt upp, og ský
nam hann frá augum þeirra. 10. Nú sem
þeir størdu til himins, þá hann fór frá þeim,
sjá! þá stódu tveir menn hjá þeim í hvítum
klædnadi; 11. þeir søgdu: Galíleisku menn!
hví standid þér, og horfid til himins? þessi
Jesús, sem uppnuminn er frá ydur til himins,
mun koma á sama hátt og þér sáud hann
fara til himins. 12. Þeir snéru þá aptur
til Jerúsalem frá vidsmjørsvidar fjallinu, er
liggur í nánd vid Jerúsalem, eina helgidags-
leid þadan c). 13. Og sem þeir komu i
borgina, fóru þeir uppá lopt eitt, hvar þeir
áttu heima, Pétur og Jakob og Jóhannes og
Andrés, og Thómas, Bartolómeus og Matt-
eus, Jakob Alfeusson og Símon Selótes og
Júdas, sonur Jakobs. 14. Þessir allir héldu
saman med eindrægni í bæn og andakt, ásamt
konunum og Maríu, módur Jesú, og brædr-
um hans.

15. Um þessar mundir stód Pétur upp á
medal Lærisveinanna (vidstaddir vóru þar hardt-
nær hundrad og tuttugu manns) og mælti:
16. gódir menn og brædur! rætast hlaut Ritn-
íng sú, er heilagur Andi hafdi fyrisagt af

V. 1. a. Þ. e. Lúkasar Gudspjall. V. 2. b. Lúk. 24, 47—49. Matt. 28, 19—20. V. 9. Mark. 16, 19. Lúk. 24, 51. V. 12. c. Helgidags leid var 2000 álnir. V. 13. Selótes, þ. e. vandlætari. V. 16. Sálm. 41, 10.

Davíds munni um Júdas, hverr ed gjørdist leidtogi þeirra, er gripu Jesúm. 17. Hann var talinn med oss, og hafdi hlotid þetta embætti. 18. Þessi afladi a) (greftrunar-) reits fyrir verdlaun ódáðaverksins, steyptist á høfudid, og brast sundur í midju, svo øll inníblin féllu út. 19. Og er þetta kunnugt ordid øllum, sem búa í Jerúsalem; svo ad þessi reitur er kalladur á þeirra túngu Akeldama, það er: Blóðs-reitur. 20. Því er svo skrifad í Sálmabókinni: bústadur hans skal í eydi verda og einginn í honum búa; og á ødrum stad: vid embætti hans taki annar. 21. Því hæfir, ad einhverr þeirra, sem alla tíd hafa med oss verid, frá því ad Drottinn Jesús tók ad gánga út og inn med oss, 22. allt frá skírn Jóhannesar, til þess dags er hann var frá oss upp numinn, verdi vottur hans upprisu medur oss. 23. Og þeir tóku tvo til, Jósep, kalladan Barsabas, ad auknefni Réttvís, og Mattías, 24. bádust fyrir og søgdu: Drottinn! þú, sem þekkir hjørtu allra, sýndu hvern þessara tveggja þú hefir valid, 25. til ad taka hlutdeild þessa embættis og Postuladæmis, úr hverju Júdas gékk, ad hann færi til síns stadar. 26. Þeir vørpudu þá hlutum um, og hluturinn féll á Mattías; og hann var sameginlega kosinn til Postula med þeim ellefu.

## 2. Kapítuli.

Heilags Anda sending á Hvítasunnu hátídinni; ræda Péturs um Krists pínu, upprisu, himnaför og sendíngu heilags Anda; spurníngar fólksins, rád og upporfan Péturs; 3000 kristnast; innbyrdis umgengni hinna fyrstu kristnu.

1. En er hvítasunnu-dagurinn kom, vóru þeir allir med einum huga til samans. 2. Og þar vard skyndilega þytur frá himni, eins og addynjanda sterkvidris, og fyllti allt húsid þar þeir sátu í. 3. Og þeir sáu túngur, eins og af eldi væru, er kvísludust og settu sig yfir sérhvern þeirra; 4. og þeir urdu allir fullir af heiløgum Anda og tóku ad tala annarlegum túngum, eins og andinn gaf þeim ad tala. 5. En í Jerúsalem bjuggu Gydíngar; gudræknir menn af allskonar þjódum undir himninum. 6. Þá nú þessi hvinur vard, kom mannfjøldinn til samans, og honum brá mjøg vid, er hverr einn heyrdi þá tala hans mál; 7. urdu þá allir svo sem frá sér og undrudust, segjandi hverr til annars: sjá! eru ekki allir þessir, sem tala, úr Galíleu, 8. og hvernin heyrir þá hverr af oss sitt módurmál? 9. Parthar, Medar, Elamitar, vér sem heima eigum í Mesopótamíu, Judeu, Kappadosíu, Pontus og Asíu, 10. í Frygíu og Pamfilíu, Egyptalandi og Lybíu-bygdum í nánd vid Syrene, vér Rómverjar hér búsettir; 11. Gydíngar, og vér sem Gydíngar høfum gjørst, Kretar og Arabar, vér heyrum þá tala á vorar túngur um Guds stórmerki? 12. Hverr madur vard frá sér numinn og efablandinn, og einn sagdi til annars: hvad ætlar úr þessu ad verda? 13. en adrir spottudust ad þessu, segjandi: þeir eru fullir af sætu víni.

14. Þá gékk Pétur fram ásamt þeim ellefu, hóf upp sína raust og taladi til þeirra: þér Gydíngar, gódir menn, og þér allir, sem í Jerúsalem búid! það sé ydur vitanlegt, og látid ydur ord mín í eyrum loda! 15. Ekki er það eins og þér hugsíd, ad þessir séu druknir b), þvíad nú er þridja stund dags; 16. heldur rætist hér hvad Spámadurinn Joel sagdi:

V. 18. *a.* Afladi, nl. handa útlendum, sbr. Matt. 27, 5—8. V. 20. Sálm. 69, 26. Sálm. 109, 8. V. 21. Ad gánga út og inn med einum, er ad hafa daglega umgengni vid hann. V. 25. Stadar, nl. straffsins. V. 15. *b.* Um þridju stundu dags (dagmál) var bænartími Gydinga, og þá óleyfilegt nokkurs ádur ad neyta. V. 16. Jóel. 2, 28—32.

17. „þad skal ské á sídustu døgum a), segir
Gud, eg vil úthella af mínum anda yfir allt
hold; ydar synir og dætur skulu spá, ydar
úngmenni sjá sjónir, og ydar øldúngar fá draum-
vitranir; 18. yfir þjóna mína og ambáttir mín-
ar vil eg á þeim døgum úthella af mínum
anda, og þau skulu spá. 19. Og eg mun
láta tákn ské á himnum uppi, og fyriburdi á
jørdu, blód, eld og reykjarsvælu. 20. Sól-
in skal snúast í myrkur og túnglid í
blód, ádur en kémur hinn mikli dýrdlegi dag-
ur Drottins; 21. en þad skal ské, ad hvørr,
sem nafn Drottins ákallar, sá mun verda hólp-
inn." 22. Þér Ísraelsmenn, heyrid þessi ord:
Jesúm frá Nasaret, mann þann er Gud aud-
kénndi fyrir ydur med kraptaverkum, táknum
og stórmerkjum, sem Gud lét ské fyrir hans
hønd medal ydar, eins og þér vitid; 23. hann
hafid þér eptir Guds rádstøfun og fyrirætlun
ofurseldan, tekid og med høndum ógudlegra
krossfest og aflífad. 24. En þennan sama
hefir Gud uppvakid og leyst úr daudans
møndum, því ad ekki var þad møgulegt,
ad daudinn gjæti haldid honum: því Davíd
segir um hann: 25. „ætíd hefi eg Drottinn
fyrir augum mér, hann er mér til hægri hlid-
ar, svo eg skélfist ekki; 26. því er mitt hjarta
gladvært og túnga mín fagnar. Þar fyrir
skal og minn líkami hvíla vonglaður, 27. því
þú munt ekki eptirskilja mína ønd í ríki enna
daudu, né leyfa ad þinn Heilagi sjái rotnun.
28. Kunna gjørdir þú mér lífsins vegu, þú
munt mig med kjæti fylla fyrir ásjónu þinni."
29. Gódir menn og brædur! leyft sé mér einard-
lega ad tala vid ydur um forfødurinn Davíd:
hann dó og var grafinn, og hans leidi er til
hjá oss enn í dag. 30. En af því hann var
Spámadur, og vissi, ad Gud hafdi svarid
honum, ad einn hans afkomenda skyldi sitja á
hans Konúngs-stóli, 31. taladi hann af for-
spá um upprisu Krists; því ekki vard hans
sála í daudra ríki eptirskilin og líkami hans
sá ekki heldur rotnun. 32. Þenna Jesúm
uppvakti Gud frá daudum, þess erum vér all-
ir vottar; 33. þar fyrir þá hann, med Guds
hægri hønd var upphafinn, og hafdi fengid
fyrirheiti af Fødurnum um heilagan Anda, út-
helti b) hann honum, eins og þér sjáid og
heyrid. 34. Davíd sté ekki til himna, þó seg-
ir hann: „Drottinn sagdi mínum Drottni:
setstú vid mína hægri hønd, 35. uns eg gjøri
óvini þína ad fótaskør þinni." 36. Med ó-
brigdanlegri vissu viti þá allur Ísraels lýdur,
ad Gud hefir gjørt ad Drottni og ad Kristi
þennan Jesúm, hvørn þér krossfestud.

37. En þá þeir heyrdu þetta, skárust þeir
innvortis, og søgdu vid Pétur og hina Post-
ulana: hvad skulum vér gjøra? 38. gódir
menn og brædur! Pétur sagdi þá til þeirra:
takid sinna-skipti, og hvørr ydar láti skíra
sig til nafns Jesú Krists, til fyrirgéfníngar
syndanna, þá munud þér ødlast gjøf heilags
Anda; 39. því ad ydur tilheyrir fyrirheitid
og børnum ydar og øllum þeim sem í fjær-
lægd eru, hvørja helst Drottinn Gud vor kallar
hér til. 40. Med ødrum fleiri ordum færdi
hann þeim heim sanninn og áminnti þá, svo
segjandi: látid ydur frelsa frá þessari þver-
brotnu kynslód! 41. Þeir, sem nú fúslega
skipudust vid hans rædu, létu skírast, og þar
bættust vid á þeim degi nær þrjár þúsundir
manna; 42. héldu þeir sér stóduglega vid
Postulanna kénníngu, í félagsskap, samnautn
og bænahaldi; 43. og ótta sló yfir alla,

V. 17. *a.* Þ. e. þegar Messíæ ríki hefst. V. 24. Sálm. 18, 6. V. 25. Sálm. 16, 8—11. V. 29. 1 Kóng. 2, 10. V. 30. 1 Kóng. 8, 20. 2 Sam. 7, 12. Sálm. 89, 4. 5. 132, 11. V. 33. *b.* Þ. e. veitti ríkuglega, Jóh. 15, 26. V. 34. Sálm. 110, 1.

því mørg tákn og stórmerki gjørdust af Postulunum.

44. En allir, sem trúadir urdu, héldu saman og høfdu allt sameginlegt. 45. Eignir sínar og góts seldu þeir, og úthlutudu øllum þar af, eins og hvørr hafdi þørf á. 46. Daglega héldu þeir sér samhuga í musterinu, brutu braud í heimahúsum, og nutu sinnar fædu med gladværd og hjartans einfaldleik, 47. lofudu Gud og høfdu vinsæld af øllum lýd. En Drottinn bætti daglega vid søfnudinn þeim, sem hólpnir urdu.

## 3. Kapítuli.

Pétur læknar halltann mann; fólkid undrast rædu Péturs um dauda og upprisu Jesú; hann rædur til apturhvarfs.

1. Eitt sinn gengu þeir Pétur og Jóhannes ásamt upp í musterid á venjulegri bænatíd um níundu stund a); 2. þá var verid ad bera þángad mann, er halltur var frá módurlífi og daglega var settur vid þær dyr musterisins, er nefndust Føgru-dyr, svo hann bædi sér ølmusu af þeim, er inngengu í musterid. 3. Þegar hann nú sá Pétur og Jóhannes ætla ad gánga þar inn, bad hann þá ad géfa sér. 4. Pétur stardi á hann ásamt Jóhannesi, og sagdi: líttú uppá okkur. 5. Hann leit til þeirra í von um ad hann mundi fá eitthvad hjá þeim; 6. En Pétur sagdi: silfur og gull á eg ekki, en hvad eg hefi, þad géf eg þér. Statt upp og gakk í nafni Jesú Krists frá Nasaret! 7. tók í hans hægri hønd og reisti hann á fætur. 8. En jafnskjótt urdu iljar hans og øklar styrkvir, svo hann spratt upp og gékk um kríng, fylgdist med þeim inn í musterid, gékk, støkk upp og lofadi Gud. 9. Og allt fólk sá hann gánga og lofa Gud, 10. líka þekktu þeir hann, og vissu ad hann var sá sami, sem hafdi beidst ølmusu vid Føgru dyr musterisins; fylltust því af felmtri og undrun yfir þessum atburdi. 11. Nú sem hinn hallti héldt sér til Péturs og Jóhannesar, flykktist til þeirra allur lýdurinn í gángrúm þad, sem kénnt er vid Salómon, og var felmtsfullur. 12. Þegar Pétur sá þetta, mælti hann til fólksins: þér, Israels menn! hví furdar ydur á þessu, og hví starid þér á okkur, eins og vid hefdum af sjálfs krapti edur fyrir egin gudhrædslu áorkad ad þessi gengur? 13. Gud Abrahams, Isaaks og Jakobs, Gud fedra vorra, hefir vegsamad sinn Son Jesúm, hvørn þér ofurseldud og afsøgdud fyrir Pílatusi, er ályktadi ad láta hann lausann. 14. Hinn heilaga og réttláta afsøgdud þér, bádud um mordíngjann, 15. en létud aflífa þann lífsins foríngja, sem Gud uppvakti frá daudum, hvar ad vér erum vottar. 16. En hann er þad, sem hefir heilan gjørt þenna, er þér horfid á og þekkid, fyrir trúna á hans nafn; trúin á hann er þad, sem gaf hinum hallta slíkan al-bata fyrir allra ydar augum. 17. Nú veit eg, brædur! ad þér, eins og ydrir høfdíngjar, gjørdud þad af vanþekkíngu; 18. en Gud lét þannig rætast þad, sem hann hafdi fyrisagt fyrir munn allra sinna Spámanna, ad Kristur skyldi pínast. 19. Takid því sinnaskipti og bætid dagfar ydar, svo ad ydar syndir verdi fyrirgéfnar, 20. uppá þad ad endurlífgunar tídirnar komi frá augliti Drottins, og hann sendi þann ydur ætlada Jesúm Krist, 21. hvørr ed á himninum ad halda allt til þess tíma, ad allt endurskapast, hvar um Gud hefir talad fyrir munn allra sinna heiløgu Spámanna frá øndverdu. 22. Þanninn hefir Móses sagt til fedranna: „Spámann mun

V. 1. *a.* Menn bádust fyrir þrísvar á dag, ad dæmi Davids, morgun, midjan dag og kvøld, Mark. 15, 33. Post. 10, 3. V. 21. Matt. 19, 28. Hebr. 1, 6 V. 22. 5 Mós. 18, 15—18.

Drottinn Gud ydar uppvekja ydur af bræðrum ydar, eins og mig; gégnid honum í øllu, er hann segir ydur; 23. því þad skal ské, ad hvør sú sál, sem ekki gégnir þeim Spámanni, skal afmást úr tølu þjódarinnar." 24. Eins hafa allir Spámennirnir, frá Samúel, hvørr eptir annan, svo margir, sem talad hafa, einnig kunngjørt þessa daga. 25. Þér erud børn Spámannanna og sáttmálans, hvørn Gud gjørdi vid fedur vora, þá hann sagdi til Abrahams: „af afkvæmi þínu skulu allar jardarinnar ættkvíslir blessun hljóta." 26. Ydur sendi Gud fyrstum Son sinn, þá hann uppvakti hann, til þess hann skyldi ydur blessa med því ad snúa sérhvørjum ydar frá sinni illsku.

## 4. Kapítuli.

Pétur og Jóhannes eru settir í fángelsi; Pétur forsvarar sig fyrir Rádinu; þeim er hótad og sleppt; þeir bidja Gud sameginlega og verda bænheyrdir; ástand safnadarins.

1. Medan þeir vóru enn ad tala til fólksins, komu ad þeim Prestar, vardmannaforíngi musterisins og Sadúsæar, 2. hvørjum þad gramdist, ad Postularnir kéndu fólkinu og bodudu upprisu framlidinna af dæmi Jesú; 3. løgdu þeir þá hendur á þá og settu í vardhald til næsta morguns, því kvøld var komid; 4. en margir af þeim, er heyrt høfdu ræduna, trúdu, svo ad tala þeirra manna var nær fimm þúsundir.

5. Morguninn eptir skédi þad, ad Høfdíngjarnir, Øldúngarnir og þeir skriptlærdu komu saman í Jerúsalem, sem og Hannas Høfudprestur, 6. Kaífas, Jóhannes Alexander, og allir, sem vóru af Høfud-presta ætt. 7. Vóru Postularnir þá framleiddir og adspurdir: af hvada myndugleika edur í hvers umbodi þeir hefdu gjørt þetta? 8. Pétur, fullur heiløgum anda, sagdi þá til þeirra: þér Høfdíngjar þjódarinnar og Øldúngar Israels! 9. med því vér í dag skulum standa ransak, vidvíkjandi gódverkinu vid hruma manninn, og því, af hvers vøldum hann sé heill ordinn, 10. þá sé ydur øllum vitanlegt og øllum Israels lýd: ad í nafni Jesú Krists frá Nasaret, þess þér krossfestud, en Gud uppreisti frá daudum, ad af hans vøldum sé þad skéd, ad þessi stendur heilbrigdur fyrir ydar augum. 11. Hann er sá steinn, hvørn þér byggíngar smidir einskis møttud, en er nú ordinn ad hyrníngar steini; 12. af engum ødrum er hjálprædis ad vænta, því medal manna géfst ekki nokkurr annar undir himninum, fyrir hvers fullíngi oss sé ætlad hólpnum ad verda.

13. En er þeir sáu einardleik Péturs og Jóhannesar, og vissu ad þeir voru ólærdir almúgamenn, undrudust þeir; líka þekktu þeir þá, ad þeir høfdu verid med Jesú. 14. Og nú, er þeir sáu manninn, sem læknadur hafdi verid, standa hjá þeim, gátu þeir engu móti mælt, 15. skipudu þeim því ad gánga út frá Rádinu og tóku rád sín saman og søgdu: 16. hvad skulum vér gjøra vid þessa menn? því þad er þekkjanlegt kraptaverk, sem þeir hafa framid og er augljóst ordid øllum, sem búa í Jerúsalem, og vér gétum ekki neitad því. 17. En svo ad fregnin um þad breidist ekki meir út medal lýdsins, svo skulum vér med hótunum hræda þá frá, ad tala framar í þessu nafni til nokkurs manns. 18. Sídan kølludu þeir þá fyrir sig og bønnudu þeim hardlega ad tala edur kénna í Jesú nafni. 19. Pétur og Jóhannes svørudu þeim: dæmid sjálfir, hvørt þad sé rétt fyrir augum Guds, ad hlýdnast ydur fremur enn

V. 25. 1 Mós. 12, 3. 18, 18. 22, 18. Gal. 3, 16. Es. 28, 16. V. 26. Fyrstum, sjá 13, 46. V. 11. Sálm. 118, 22.

Gudi. 20. Vér gétum því ekki látid vera ad tala þad sem vér høfum heyrt og sjed. 21. Hinir juku þá sínar ógnanir, og slepptu þeim svo, því þeim hugsadist engin átylla til ad straffa þá vegna fólksins, þar allir lofudu Gud fyrir þad, sem skéd var; 22. því sá madur var yfir fertugt, er med tjedu dásemdar verki var læknadur.

23. Þá búid var ad láta þá lausa, koma þeir til sinna a) og greindu þeim frá hvad Høfudpréstarnir og Öldúngarnir høfdu sagt vid þá. 24. Þegar þeir heyrdu þad, hófu þeir samhuga raust sína til Guds og søgdu: Drottinn, þú ert sá Gud, sem gjørt hefir himininn og jørdina og sjóinn og allt hvad í þeim er; 25. þú, sem hefir talad svo fyrir munn Davíds, þjóns þíns: „hví æda heidíngjarnir og hví taka þjódirnar saman óuýt rád? 26. Jardarinnar Konúngar halda mót og høfdíngjarnir taka sig saman móti Drottni og hans Smurda.“ 27. Því sannarlega risu upp í borg þessari Heródes og Pontsíus Pílatus, ásamt heidnum þjódum og Israelslýd, móti þínu heilaga barni Jesú, hvørn þú hafdir smurt, 28. til ad gjøra allt hvad þín hønd og þitt rád hafdi tilætlad ad ské skyldi. 29. Og nú, Drottinn! lít á þeirra hótanir og géf þínum þjónum med fullri djørfúng ad tala þitt erindi! 30. útrétt þar til þína hønd, ad ské megi lækníngar, tákn og stórmerki í nafni þíns heilaga barns Jesú! 31. Og er þeir høfdu bedist fyrir, hrærdist stadurinn hvar þeir voru samankomnir, og þeir urdu allir fullir heiløgum anda, og kénndu Guds ord med djørfúng.

32. Í safnadi enna trúudu var eitt hjarta og ein sál; enginn sagdi þad vera sitt, er hann átti, heldur var þeim allt sameginlegt. 33. Postularnir vitnudu um Herrans Jesú upprisu med miklum krapti, og allir unntu þeim. 34. Medal þeirra var enginn þurfamadur, því hvørr, sem átti fasteign edur hús, seldi þad, kom med andvirdid, 35. og fékk þad Postulunum; og var sérhvørjum úthlutad, eptir því sem hann hafdi þørf til. 36. Þannig seldi Levítinn, Jóses, ættadur frá Kýprus, hvørn Postularnir kølludu ad vidurnefni Barnabas, (þad er: hinn áminnandi), akur, er hann átti, kom med verdid og fékk þad Postulunum.

V. 23. a. Nl. trúarbrædra. V. 25. Sálm. 2, 1. 2.

## 5. Kapituli.

Svik og straff Ananíasar og Saphíru; kraptaverk Postulanna; margir taka trú; Postularnir setjast í vardhald, en frelsast þadan af Engli; eru leiddir fyrir Rádid, sem vill ráda þá af døgum; Gamalíel afstýrir því; þeir eru húdstrýktir, látnir lausir, en halda samt áfram ad kénna.

1. En madur nokkurr ad nafni Ananías hvørs kona hét Saffíra, seldi fasteign, 2. og dró nokkud undan af verdinu, med vitund konu sinnar, en færdi Postulunum nokkud og seldi þeim til umráda. 3. Pétur sagdi þá: Ananías! hví létstu Satan koma þér til þess ad ljúga ad heiløgum Anda og draga af jardarverdinu? 4. var hún ekki þín, á medan hún var óførgud? og áttirdú eins rád á verdi hennar eptir søluna? Hvørninn gatstú þá látid þér hugkvæmast slíkt til-tæki? ekki hefir þú logid ad mønnum, heldur ad Gudi. 5. Undir eins og Ananías heyrdi þessi ord, datt hann nidur og gaf upp øndina, og miklum ótta sló yfir alla, sem þetta heyrdu; 6. en úngir menn bjuggu um líkid, báru þad burt og jørdudu. 7. Ad lidnum svo sem þrem stundum bar svo til, ad kona hans gékk þar inn, án þess ad vita hvad skéd var. 8. Pétur spurdi hana: segdú mér, seldud þid akurinn fyrir þetta verd? hún svaradi: já, fyrir þetta verd. 9. Pétur mælti þá til hennar: hví urdud þid

samráda í ad freista Anda Drottins? sjá! fætur þeirra, sem greftrudu mann þinn, eru vid dyrnar og munu útbera þig. 10. En hún datt jafnskjótt nidur fyrir fætur honum, og gaf upp øndina, svo þegar hinir úngu menn komu inn, fundu þeir hana dauda, báru hana út og grófu hjá manni sínum. 11. Og miklum ótta sló yfir allan søfnudinn, og yfir alla, sem þetta heyrdu.

12. Framvegis skédu fyrir hendur Postulanna mørg tákn og stórmerki medal fólksins; (og allir a) fylltu þeir einn flokk og héldu til í Salómons stólpa = gángi; 13. en aungvir adrir b) dirfdust ad samlagast þeim, heldur mikladi þá lýdurinn; 14. og jafnan jukust fleiri vid, sem tóku trú, mikill fjøldi karla og kvenna), 15. svo ad þeir báru vanfæra menn út á strætin og løgdu þá á bedda og lausa = rúm þannig, ad þegar Pétur kjæmi félli ad minnsta kosti skuggi hans á einhvørn þeirra. 16. Fjøldi fólks kom og úr kríngum = liggjandi borgum til Jerúsalem, flytjandi sjúka, og þjáda af óhreinum øndum, sem allir urdu heilbrigdir.

17. Nú tók sig upp Presta = høfdínginn og allir þeir, sem med honum héldu, sem var flokkur Sadúseanna; 18. fylltust þeir af vandlætíngu, og løgdu hendur á Postulana, og settu þá í almennt fánga = hús. 19. En Engill Drottins opnadi um nótt dyr myrkvastofunnar, leiddi þá út og sagdi: 20. farid, gángid frjálslega fram og talid í musterinu øll þessi lífsins ord til fólksins. 21. En sem þeir heyrdu þetta, gengu þeir í birtíngu upp í musterid og kénndu. En þá Presta = høfdínginn og þeir, sem á hans máli voru, voru saman komnir, kølludu þeir saman Rádid og alla Øldúnga Ísraelslýds, og sendu til myrkvastofunnar til ad sækja þá. 22. En er þjónarnir komu og fundu þá ekki í dýblissunni, hvurfu þeir aptur og kunngjørdu þad, og mæltu: 23. fángahúsid fundum vér ad sønnu vandlega læst og vardmennina standa fyrir dyrunum, en þá vér lukum upp, fundum vér engan inni. 24. Þegar þeir heyrdu þessa søgu, Presta = høfdínginn og foríngi vardmanna musterisins og Høfud = prestarnir, urdu þeir efablandnir, hvad úr þessu ætladi ad verda. 25. En í því kom ad madur, sem kunngjørdi þeim: sjá! þeir menn, sem þér settud í dýblissu, standa í musterinu, og kénna þar fólkinu. 26. Þá fór vardmannaforínginn af stad med þjónunum, og sókti þá, þó án ofbeldis, af hrædslu vid fólkid, ad ekki yrdu þeir grýttir. 27. Nú sem þeir voru komnir med þá, leiddu þeir þá fram fyrir Rádid. Presta = høfdínginn spurdi þá Postulana: 28. høfum vér ekki lagt ríkt á vid ydur, ad kénna ekki í þessu nafni c)? og sjá! samt hafid þid fyllt Jerúsalem med ykkar kénníngu, og viljid leida yfir oss þessa manns blód. 29. Þá svaradi Pétur og Postularnir: framar ber ad hlýda Gudi en mønnum. 30. Gud fedra vorra hefir uppvakid Jesúm, hvørn þér líflétud og upphengdud á tré. 31. Þenna Foríngja og Frelsara hefir Gud upphafid d) med sinni hægri hendi, svo hann veiti Ísrael apturhvarf og syndanna fyrirgéfníngu; 32. og vér erum hans vottar ad þessu og sá heilagi Andi, hvørn Gud gaf þeim, er hlýdnudust honum. 33. Þá þeir heyrdu þetta, skárust þeir innvortis og voru þegar alrádnir í ad lífláta þá.

34. En í Rádinu stód þá upp madur, Fariseari, ad nafni Gamalíel, einn Løgspekíngur, velmetinn af øllu fólki; hann baud ad Postularnir væri látnir víkja út snøggsinnis, 35. og sagdi: þér Ísraels menn! athugid vel, hvad þér gjørid vid þessa menn. 36. Fyrir stuttu

V. 12. *a.* Þ. e Kristnir. V. 13. *b.* Þ. e. þeir sem ei høfdu tekid kristni. V. 28. *c.* Prédika þann nýa lærdóm, hvørs høfundur Jesús var. V. 31. *d.* Sbr. 2, 33.

reis upp Teudas, og lét mikid yfir sér. Til hans hylltust nær fjøgur hundrud manns; en hann var drepinn, og allir þeir, sem hann þýddust, eru tvístradir og ad engu ordnir. 37. Eptir hann reis upp Júdas hinn galverski, skatta-tekju árid, og ladadi til sín fjølda fólks. Hann fyrirfórst líka, og allir þeir, sem med honum héldu, sundurdreifdust. 38. Og nú segi eg ydur: hættid vid þessa menn, og látid þá vera. Því ef þetta áform, edur fyritæki er af mønnum, fellur þad sjálfkrafa; 39. en sé þad frá Gudi, þá megnid þér ekki ad kéfja þad; svo þér ekki verdid fundnir í ad vilja strída gégn Gudi. 40. Á þetta féllust þeir, kølludu á Postulana, húdstrýktu þá, fyrirbudu þeim ad tala í Jesú Nafni og létu þá svo lausa. 41. En þeir gengu gladir burt frá Rádsins augsýn yfir því, ad þeir, søkum Jesú vidurkénningar, hefdu verid virdtir hádúngar; 42. og hættu ekki ad kénna hvørn dag í musterinu, og ad boda í hvørju húsi, fagnadar lærdóminn, ad Jesús væri Kristur.

## 6. Kapítuli.

Tala kristinna fjølgar, og sjø medhjálparar veljast; Stephanus gjørir furduverk; enginn gétur móststadid hans speki, en ljúgvitni leidast gégn honum.

1. Um þessar mundir, þá tala Lærisveinanna óx, kom upp kurr hjá þeim Grísku móti enum Hebresku a), út af því, ad ekkjur þeirra óvyrdtust vid hvørsdaglega þjónustu b). 2. Þeir tólf kølludu þá alla Lærisveinana saman og søgdu: ekki er gott ad vér yfirgéfum Guds ord til ad þjóna fyrir bordum. 3. Skygnist því, brædur! eptir sjø mønnum vel ræmdum ydur á medal, sem fullir séu af heiløgum Anda og vísdómi, svo vér gétum falid þeim á hendur þessa naudsyn; 4. en vér viljum vera stødugir vid bæna-haldid og ordsins þjónustu. 5. Þessi um-mæli féllu vel í géd øllum søfnudinum, og þeir útvøldu Stefán, mann fullan af trú og heiløgum Anda; Filippus c), Prokórus, Nikanor, Tímon, Parmenas og Nikolás frá Antíokíu, sem hafdi Gydíngur gjørst d). 6. Þessa framleiddu þeir fyrir Postulana, sem bádust fyrir og løgdu hendur yfir þá. 7. Nú útbreiddist ódum Guds ord, tala lærisveinanna jókst hardla mjøg í Jerúsalem, og jafnvel fjøldi Presta tók trú.

8. En Stefán, fullur af nád og krapti, gjørdi tákn og stórmerki medal fólksins. 9. Þá tóku sig til nokkrir af þeirri svo nefndu Leysíngja e) Samkundu, og þeirra frá Syrene, og Alexandríu, Silisíu og Asíu, og þreyttu spurníngar vid Stefán. 10. En þeir gátu ekki stadid gégn þeirri vitsku og þeirri andagift, sem hann taladi af. 11. Þá settu þeir út menn, er søgdu: vér høfum heyrt hann tala smánar-ord móti Mósi og Gudi; 12. æstu svo upp almúgann, Øldúngana og þá Skriftlærdu, veittust ad honum og gripu hann og leiddu fyrir Rádid; 13. létu svo koma fram ljúgvitni, er søgdu: þessi madur lætur ekki af ad tala gudlaus ord gegn þessum heilaga Stad og Løgmálinu, því vér høfum heyrt hann segja: 14. ad Jesús af Nasaret mundi eydileggja þenna Stad og umbreyta þeim sidum, sem Móses hefir oss fyrilagt. 15. Øllum, sem í Rádinu sátu, vard starsýnt á Stefán,

V. 1. *a.* Hebreskir eru þeir, sem voru innlendir í Gydíngalandi; en Grískir þeir, sem voru annarar þjódar, edur ekki tølndu Gydínga mál, þó tekid hefdu trú þeirra. Hér meinast þeir af hvørumtveggjum sem tekid høfdu kristni. *b.* Grískir kvørtudu yfir, ad ekkjur þeirra hafi farid varhluta í daglegri adhjúkrun og annari ølmusu veiting fremur þeim í Gydíngalandi innlendu. V. 2. Ad þjóna fyrir bordum, er ad sjá til, ad fátækir og sjúkir færi ei á mis vid naudsýnlegt vidurværi og adhjúkrun. V. 5. *c.* Hann hafdi fyrst verid heidinn, tekid svo Gydinga trú, og sídast kristni. *d.* Sjá Kap. 8, 5. 21, 8. V. 7. Sjá Kap. 8, 4. V. 9. *e.* Leysíngjar kølludust þeir, hvørjir eda hvørra fedur ádur høfdu þrælar verid hjá Gydingum eda ødrum, og høfdu tekid Gydinga trú, og høfdu samkundu í Jerúsalem.

og vyrdtist þeim hans ásjána vera sem engils
ásjána.

## 7. Kapítuli.

Stefán upptelur Guds velgjörnínga vid hid óþakk-
láta Gydínga fólk; ávítar Gydínga fyrir fram-
hald sinnar þvermódsku, og er grýttur.

1. Þá spurdi Presta-høfdínginn: er þessu
svo varid? Stefán mælti: 2. Gódir menn,
Brædur og Fedur! hlustid til: Gud dýrdar-
innar birtist Fødur vorum Abraham, med-
an hann var í Mesópótamíu, ádur en hann bjó
í Karran og sagdi til hans: 3. far burt úr
landi þínu og frá frændfólki þínu, og kom í
þad land, er eg mun vísa þér á. 4. Þá
fór Abraham úr Kaldæalandi, og tók sér ból-
festu í Karran. En eptir þad ad fadir hans
var látinn, flutti hann sig yfir til þessa lands,
í hvørju þér nú búid. 5. Þó gaf Gud hon-
um enga landeign þar í, ekki svo mikid, sem
eitt fótmál, en hét ad gefa honum þad til
bústadar, og hans afsprengi eptir hans dag,
jafnvel þó hann ekkert barn ætti. 6. Gud
sagi vid hann, ad nidjar hans mundu búa sem
útlendir í annarlegu landi, hvar menn mundu
þjá þá og fara ílla med í fjøgur hundrud
ár; 7. en þjód þá, hvørri þeir verda ánaud-
ugir, mun eg straffa, sagdi Gud. En eptir
þad munu þeir fara þadan og dýrka mig í
þessum stad. 8. Líka gaf hann honum sátt-
mála umskurnarinnar. a) Svo gat Abraham
Ísaak og umskar hann á áttunda degi; en Ísaak
gat Jakob, en Jakob þá tólf ættfedur. 9.
Tédir ættfedur løgdu øfund á Jósep og seldu
hann til Egyptalands; en Gud var med hon-
um 10. og frelsadi hann úr øllum hans
þreyngíngum, og gaf honum hylli og vitsku
fyrir augum Faraós Egyptalands Konúngs, og
setti hann til yfirmanns yfir Egyptaland og
yfir allt hús konúngsins. 11. Nú kom hall-
æri yfir gjørvalt Egyptaland og Kanaansland,
og megn húngurs neyd, svo fedur vorir fundu
ekki atvinnu. 12. En þegar Jakob heyrdi
ad korn væri ad fá í Egyptalandi, þá sendi
hann fedur vora í fyrsta sinni. 13. Í ødru
sinni lét Jósep brædur sína þekkja sig, og
Faraó vard kunnug Jóseps ætt. 14. Sídan
sendi Jósep eptir fødur sínum Jakob og øllu
frændfólki sínu, sjøtíu og fimm alls. 15.
Jakob fór þá nidur til Egyptalands, hvar hann
dó og fedur vorir, 16. og voru þeir fluttir
til Sikkem og lagdir í þann legstad, er Abra-
ham hafdi keypt fyrir silfur af sonum Emors,
fødur Sikkems. 17. En er nálgadist tími
fyrirheitisins, hvørt Gud hafdi svarid Abra-
ham, óx fólkid og margfaldadist í Egypta-
landi, 18. uns nýr Konúngur kom til ríkis,
sá er ekki þekkti til Jóseps. 19. Hann beitti
slægd vid kyn vort og misþirmdi fedrum vor-
um, og lét bera út úngbørn þeirra, svo þau
tortýndust. 20. Um þetta bil fæddist Móses
og var frábærlega fridur; hann ólst upp þrjá
mánudi í fødurhúsum. 21. En er hann var
útborinn, tók dóttir Faraós hann upp og ól
sér fyrir son. 22. Og Móses var mentadur í
allri speki egyptskra manna og vard máttugur
í ordum og verkum. 23. En er hann hafdi
nád fertugs aldri, kom honum í hug ad vitja
brædra sinna, Ísraels nidja; 24. og þá hann
sá einn verda fyrir ójøfnudi, rétti hann hluta
hans, hefndi þess, sem misþyrmt var, og drap
þann Egyptska. 25. En hann hugsadi ad bræd-
ur sínir mundu skynja ad Gud ætladi hann
þeim til frelsis, en þeir skynjudu þad ekki, 26.
því næsta dag hitti hann tvo í illdeilu, og

V. 3. 1 Mós. 12, 1. V. 6. 1 Mós. 15, 13—14. V. 8. 1 Mós. 17, 10. fl. *a.* Sáttmála umskurnarinnar, þ. e. þad bodord, ad hann skyldi umskéra allt karlkyns í sínu húsi. V. 10. 1 Mós. 41. V. 16. 1 Mós. 33, 19. 49, 29. Jós. 24, 32. V. 19—20. 2 Mós. 1. 2.

fýsti þá til fridar med þessum ordum: gódir menn! þid erud brædur, því beitid þér ójafnadi hvørr vid annan? 27. En sá, sem órétt gjørdi naúnga sínum, hratt Móse frá sér, og sagdi: hvørr hefir sett þig til høfdíngja edur dómara yfir okkur? 28. ellegar ætlar þú ad drepa mig, eins og þú drapst Egyptarann í gær? 29. Søkum þessara um-mæla flúdi Móses og vard útlendur í Madíans landi, hvar hann gat tvo syni. 30. Ad fjørutíu árum lidnum birtist honum í eydimørku Sínaí fjalls, engill Drottins í eldsloga á þyrni-runni. 31. Þegar Móses sá sýnina, undradist hann; en er hann gékk nær til ad athuga betur, skédi rødd Drottins til hans: 32. eg em Gud fedra þinna, Gud Abrahams, Gud Isaaks og Gud Jakobs. Nú vard Móses skélfdur og þordi ekki ad hyggja ad. 33. Þá sagdi Drottinn vid hann: leys af þér skó þína; því stadurinn, sem þú stendur á, er heiløg jørd. 34. Gløgglega hefi eg séd þjáníngu míns fólks og heyrt þeirra andvarpanir, og em nú ofan kominn til ad frelsa þá; kom! eg vil senda þig til Egyptalands. 35. Þenna Móses, hvern þeir afsøgdu svo segjandi: „hverr setti þig til høfdíngja og dómara," þann sama sendi Gud, sem høfdíngja og lausnara, fyrir milligaungu Engilsins, er honum birtist í þyrni-runninum. 36. Þessi leiddi þá út, gjørdi tákn og furduverk á Egyptalandi og í hafinu rauda og í eydimørkinni um fjørutíu ár. 37. Þetta er sá Móses, sem sagdi Israels nidjum: „Spámann mun Drottinn Gud uppvekja ydur af brædrum ydar, eins og mig, gégnid honum." 38. Þessi er sá, sem í samkundunni í eydimørkinni gekk milli Engilsins, er vid hann taladi á Sínaí, og fedra vorra, sá ed tók vid þeim lífkróptugu ordum til ad géfa oss þau; 39. hvørjum fedur vorir vildu ekki hlýdnast, heldur burtskúfudu honum og snéru huga sínum til Egyptalands, segjandi til Arons: 40. gjør oss Gudi, er séu vorir leidtogar, því vér vitum ekki hvad um þenna Móses er ordid, sem útleiddi oss úr Egyptalandi. 41. Í sama sinn létu þeir smída kálf, færdu fórnir godinu og kjættust yfir sínum handaverkum. 42. Þá snéri Gud sér frá þeim og ofurgaf þá, svo ad þeir dýrkudu himinsins her, eins og skrifad er í spámanna bókinni: „ekki hafid þér Israels menn fórnad mér slátrunar-fé né ødrum fórnum í þau fjørutíu ár, sem þér dvøldud í eydimørkinni, 43. heldur bárud þér Móloks tjaldbúd og stjørnu Remfans ydar Guds bílæti, sem þér høfdud smídad til ad tilbidja; hvar fyrir eg vil flytja ydur út fyrir Babylon." 44. Vitnisburdar tjaldbúdin, sem fedur vorir høfdu í eydimørkinni, var eins og sá hafdi fyrirskipad, er mælti vid Móses, ad hann skyldi gjøra hana eptir mynd þeirri, sem hann séd hefdi. 45. Vid henni tóku fedur vorir hvørr af ødrum, og undir Jósúa færdu þeir hana med sér á stødvar heidíngjanna, sem Gud útrak frá augsýn fedra vorra, allt fram á daga Davíds, 46. sem af því hann fann nád hjá Gudi, beiddist ad mega sjá Jakobs Gudi fyrir hús; 47. en Salómon bygdi honum þad. 48. En sá hinn Hæsti býr ekki í (musterum), sem manna hendur hafa gjørt, eins og Spámadurinn segir: 49. „Himininn er mitt hásæti og jørdin mín fótskør, hvada hús skyldud þér byggja mér — segir Drottinn — eda hvørr er sá stadur, hvar eg skyldi stadar nema? 50. hefir ekki mín hønd gjørt allt þetta? 51. Þér hardsvíradir og óumskornir a) í hjarta og eyrum! sífeldt þverskallist þér gégn heiløgum Anda, allt eins og fedur ydar, eins þér. 52. Hvørn

V. 30. 2 Mós. 3. V. 35. Sbr. v. 31. V. 37. 2 Mós. 18, 15. V. 38, 2 Mós. 19, 26. V. 41. 2 Mós. 32. V. 42. Amos 5, 25. 26. V. 44. 2 Mós. 25. V. 49. Es. 66. V. 51. *a.* Þ. e. óhlýdnir, eins og heidnir menn.

Spámannanna hafa ekki fedur ydar offókt? þeir
lífletu þá, er fyrifram bodudu tilkomu ens Rétt-
láta, hvørn þér ofurfeldud, og hvørs mordíng-
jar þér nú erud ordnir; 53. þér, fem medtek-
id hafid løgmálid fyrir tilfkipan Englanna, en
hafid ekki haldid þad.

54. Þá þeir heyrdu þetta, fkárust þeir í
hjørtum fínum og gnístu tønnum yfir honum;
55. en hann, fullur af heiløgum Anda, horfdi
til himins og leit Guds dýrd og Jesúm standa
vid Guds hægri hønd. 56. Þá mælti hann:
sjá! eg fje himnana opna og Mannfins Son
standa til hægri handar Gudi. 57. Hinir
hrópudu þá upp há-hljódum, byrgdu fyrir
eyru sér og rédust á hann famhuga, hnepptu
hann út af borginni og grýttu hann. 58.
En vottarnir løgdu fkikkjur fínar til fóta úng-
mennis, er Sál hét a), 59. og grýttu Stefán
fem ákalladi og fagdi: Herra Jesú! medtak þú
minn anda! 60. Sídan féll hann á kné og
hrópadi há-støfum: Drottinn! lát þá ekki
gjalda þessarar fyndar! og fem hann hafdi
þetta fagt, fofnadi hann.

## 8. Kapítuli.

Sál offækir Søfnudinn; Filippus snýr Samverfkum til kristni; Postularnir leggja hendur yfir þá og þeir ødlast heilagann Anda; Símon galdramadur vill kaupa vald til ad meddeila andans gáfur, og straffast fyrir þad; Filippus snýr til kristni Hirdstjóra Kandafar.

1. Sál lét vel yfir lífláti hans b), og
fama dag hófst stór offókn gégn føfnudinum í
Jerúfalem, og allir tvístrudust vídsvegar um
hérød Gydíngalands og Samaríu, nema Post-
ularnir. 2. En gudhræddir menn bjuggu um
lík Stefáns, og hørmudu hann mikid. 3.
En Sál eyddi føfnudinn, med því hann gékk
inní hvørt hús og dró þadan menn og konur,
er hann afhendti í vardhald. 4. En þeir,
ed tvístrast høfdu, fóru vídsvegar, og bod-
udu nádar lærdóminn. 5. Þannig fór Fil-
ippus til borgarinnar Samaríu og bodadi þar
Krist. 6. Fjøldi borgarmanna veittu famhuga
eptirtekt hans kénníngum, þá þeir heyrdu og
sáu kraptaverkin, fem hann gjørdi, 7. því
frá mørgum, er høfdu óhreina anda, viku þeir
burtu med ópi miklu, og margir visnir og
halltir læknudust, 8. svo mikil gledi vard í borg-
inni. 9. En madur nokkurr ad nafni Símon,
var fyrir í borginni, sá ed fór med fjølkýngi,
fem Samverfku þjódinni óx mjøg í augum,
og lét mikid yfir sér. 10. Til hans hnigu
allir smáir og stórir, fegjandi: þessi er Guds
kraptur sá hinn mikli. 11. En þess vegna
hnigu þeir ad honum, ad hann hafdi í lánga
tíd ært þá med tøfrum fínum. 12. Nú fem
menn trúdu Filippusi, er bodadi þeim nádar
lærdóminn um Guds ríki og tign Jesú Krists,
létu menn og konur skírast. 13. Sjálfur Sí-
mon tók líka trú, og er hann var skírdur,
héldt hann sér stødugt til Filippusar; en er
hann sá teikn og stórmerki ské, vard hann frá
sér. 14. Þegar Postularnir í Jerúfalem heyrdu,
ad Samaría hefdi medtekid Guds ord, fendu
þeir Pétur og Jóhannes þángad. 15. Þess-
ir komu og bádu fyrir Samverfkum, ad þeir
mættu ødlast heilagann Anda; 16. því hann var
enn ekki kominn yfir neinn þeirra, einúngis
voru þeir skírdir til nafns Herrans Jesú. 17.
Þeir løgdu þá hendur yfir þá og medtóku
þeir heilagann Anda. 18. En er Símon sá,
ad heilagur Andi veittist fyrir handa uppá-
leggíngu Postulanna, færdi hann þeim fé og
fagdi: 19. géfid mér einnig þetta vald, ad
yfir hvørn, fem eg legg hendur, hann ødlist
heilagann Anda. 20. Pétur andsvaradi hon-

V. 58. *a.* til merkis um, ad þeir famþyktu med honum þetta verk, Kap. 22, 3. 20. V. 1. *b.* Þ. e. Stefáns. V. 5. Filippus, medhjálpari fafnadarins, (sjá Kap. 6, 5), ekki Filippus Postuli.

um: þrísist aldrei silfur þitt né þú, fyrst þú hugsar ad Guds gjøf fáist fyrir fé. 21. Þú átt engann þátt né hlutdeild í þessum lærdómi, því þitt hjartalag er ekki rétt fyrir augum Guds. 22. Aflegdu því þessa þína vondsku og bid Drottinn, ef þér kynni fyrirgéfast þetta þitt vonda hugarfar; 23. því eg sje ad þú býr yfir gallbeiskju og ert flæktur í fjøtrum rángsleitninnar. 24. Símon svaradi: bidjid fyrir mér til Drottins, ad ekkért komi þad yfir mig, sem þér søgdud. 25. Eptir ad þeir høfdu ørugglega vitnad og kénnt ord Drottins, snéru þeir aptur til Jerúsalem og bodudu gledi-bodskapinn í mørgum þorpum Samverskra.

26. En Engill Drottins taladi vid Filippus og sagdi: statt upp og gakk sudur á veg þann, sem liggur frá Jerúsalem til Gasa (hún er í eydi). 27. Hann stód upp og fór. Og sjá! einn etíópískur madur, géldingur og stórhøfdíngi hjá Kandase Drottníngu í Etíópíu, sem settur var yfir alla hennar fjársjódu; hann hafdi farid til Jerúsalem til ad bidjast fyrir, 28. og var á heimleid, sat í vagni og las Esajas spámann. 29. Andinn sagdi þá vid Filippus: gakk ad þessum vagni og haldt þig hjá honum. 30. Filippus skundadi til, heyrdi manninn vera ad lesa Spámanninn Esajas og spurdi: skilurdú þad þú les? 31. hinn svaradi: hvørnig skyldi eg géta þad, fyrst enginn leidbeinir mér? bad hann svo ad stíga upp í vagninn og setjast hjá sér. 32. En innihald greinar þeirrar, er hann las, var þetta: „eins og saudur var hann til slátrunar leiddur, og sem lambid þegir hjá þeim, er klippir þad, svo lauk hann ekki sínum munni upp. 33. Med lægíngu endadi hans dómur a); hvørr gétur útmálad øld hans, því af jørdinni verdur líf hans upprætt" b). 34. Géldíngurinn innti til vid Filippus: eg bid, seg mér, um hvørn talar Spámadurinn þetta? hvørt um sjálfan sig edur annan? 35. Þá lauk Filippus upp sínum munni, tók til á áminnstri Ritníngar-grein og bodadi honum fagnadar lærdóminn um Jesús. 36. En sem þeir fóru áfram veginn, komu þeir ad vatni nokkru, þá mælti Géldíngurinn: sjá vatnid! hvad hamlar mér ad skírast? 37. og hann baud ad stødva vagninn, 38. og stigu þeir bádir nidur í vatnid, Filippus og Géldíngurinn, og Filippus skírdi hann. 39. En þá þeir voru stígnir upp úr vatninu, greip Andi Drottins Filippus burt, og Géldíngurinn sá hann ekki framar. 40. En hann (Géldíngurinn) fór gladur leid sína; en vid Filippus vard vart í Asdod; þar gékk hann um kríng og bodadi nádar bodskapinn í hvørri borg, uns hann kom til Sesareu.

## 9. Kapítuli.

*Sál snýst til kristni, hann kénnir, er ofsóktur, kémur til Jerúsalem, og verdur aptur ad flýa. Søfnudurinn fær ró; Petur læknar Eneas, uppvekur Tabítu.*

1. Sál linnti enn ekki ógnunum og manndrápi vid Lærisveina Drottins og nú gékk hann til Presta-høfdíngjans, 2. og óskadi af honum bréfa til samkundanna í Damaskus, svo ad ef hann fyndi nokkra menn edur konur, sem tekid hefdu þessa trú, þá mætti hann færa þá bundna til Jerúsalem. 3. Í þeirri ferd bar svo til, þegar hann nálgadist Damaskus, ad um hann leiptradi skyndilega ljós af himni; 4. og sem hann datt til jardar, heyrdi hann rødd segja vid sig: Sál! Sál! hví ofsækir þú mig? 5. hann ansadi: Herra! hvørr ert

V. 33. Es. 53, 11. *a.* Þ. e. þíngu kjør. *b.* Rádinn af døgum, sem óbótamadur. V. 4—7. Sbr. Kap. 22, 6—10. 26, 13—15.

þú? Drottinn svaradi: eg er Jesús, hvørn þú
ofsækir. 6. En statt upp og gakk inn í borgina,
þar skal þér verda sagt hvad þér ber ad gjøra.
7. Førunautar hans stódu einsog høggdofa,
því þeir heyrdu raustina, en sáu engan. 8.
Þegar Sál komst á fætur og opnadi augun, sá
hann engan mann, en hinir leiddu hann vid
hønd sér inn í borgina; 9. þar var hann í
þrjá daga sjónlaus, og át ekki né drakk.

10. En í Damaskus var Lærisveinn nokk-
urr, sem hét Ananías. Vid hann sagdi Drott-
inn í sýn: Ananías! hinn ansadi: hér em eg,
Herra! 11. Drottinn sagdi: statt upp og gakk
í stræti þad, sem kallast hid beina og spurdú
í húsi Júdasar eptir tarsískum manni, sem heit-
ir Sál, 12. því sjá! hann bidst fyrir, og
hefir í sýn sjed mann, ad nafni Ananías, koma
og leggja hendur yfir sig, svo hann yrdi apt-
ur sjáandi. 13. Ananías svaradi: Drottinn!
eg hefi heyrt af mørgum um þenna mann, hvørsu
mikid íllt hann hefir gjørt þínum heiløgu í
Jerúsalem, 14. og ad hann hefir fengid vald
frá Presta-høfdíngjunum til ad binda hér alla
þá, sem vidurkénna þitt nafn. 15. En Drott-
inn sagdi til hans: fardú! því þessi er mér
útvalid verkfæri til ad bera nafn mitt fram
fyrir heidnar þjódir og Konúnga og fyrir Is-
raels børn, 16. því eg mun sýna honum,
hvørsu mikid íllt honum ber ad þola vegna
míns nafns. 17. Þá fór Ananías af stad,
kom í húsid og lagdi hendur yfir hann og mælti:
Sál, bródir! Drottinn sendi mig (Jesú, sem
þér birtist á vegi þeim, er þú komst híngad),
svo þú fengir aptur sjón þína og fylltist hei-
løgum Anda. 18. Þá féll strax af augum
hans eins og hreistur, og hann vard heilskygn.
19. Sídan stód hann upp og var skírdur, og
er hann hafdi neytt fædu, styrktist hann.
Sál dvaldi nokkra daga hjá Lærisveinunum
í Damaskus, 20. og kénndi strax í samkundu-
húsunum, ad Jesús væri Guds Sonur. 21.
Allir þeir, sem heyrdu þad, undrudust stórum
og søgdu: er þessi ekki sá, sem í Jerúsalem eyddi
þeim, er þetta nafn ákølludu, og kom híngad
til ad flytja þá bundna til Presta-høfdíngjanna?
22. En Sál efldist meir og meir, og hnekti
þeim Gydíngum, sem bjuggu í Damaskus,
og sannadi ad Jesús væri Kristur. 23.
Rúmum tíma þar eptir tóku Gydíngar ród
sín saman ad drepa hann, 24. en Sál fékk
vitneskju um þeirra rádagjørd. 25. Þeir
gjættu portanna nótt og dag, svo þeir gjætu
rádid hann af døgum, en Lærisveinarnir tóku
hann um nótt og létu hann í kørfu síga út
fyrir múrinn. 26. Þá hann sídan kom til
Jerúsalem, reyndi hann til ad samlaga sig
Lærisveinunum, en øllum stód geigur af hon-
um, og trúdu því ekki, ad hann væri Læri-
sveinn. 27. En Barnabas tók hann ad sér,
leiddi hann til Postulanna, og skírdi frá,
hvørninn hann á veginum hefdi sjed Herrann
og talad vid hann, og hvørsu einardlega hann
hefdi flutt Jesú erindi í Damaskus. 28. Ept-
ir þad vard hann handgenginn Lærisveinunum
í Jerúsalem og rak skøruglega erindi Drottins
Jesú. 29. Sérílagi átti hann þrætur og
orda-stad vid Grikki, en þeir áformudu ad
ráda hann af døgum; 30. en er brædurnir
urdu þess vísir, fylgdu þeir honum til Sesar-
eu, og sendu hann þadan til Tarsus. 31.
Nú høfdu søfnudirnir frid um allt Júdaland
og Galíleu og Samaríu, efldust og gengu fram
í ótta Drottins, fullir af huggun heilags
Anda.

32. Svo bar til, þá ed Pétur ferdadist alls-
stadar um kríng, ad hann kom einninn til þeirra
heiløgu, sem bjuggu í Lydda. 33. Þar fann
hann mann, ad nafni Eneas, er í átta ár

V. 29. Um Grikki sjá 6, 1 Skgr.

hafdi rúmfastur legid af visnunar sýki. 34.
Pétur sagdi vid hann: Eneas! lækni þig Jesús
Kristur, stattú upp og búdú um þig sjálfur!
og strax stód hann upp. 35. Þenna mann sá
allt fólk, sem heima átti í Lydda og í Saron,
og snéri sér til Drottins. 36. Medal Lærisvein-
anna í Joppe var stúlka nokkur, sem hét
Tabíta, þad er: Dorkas a), audug af gód-
um verkum og ølmusu-gjørdum. 37. Hún
vard veik um sømu mundir og dó. En þegar
búid var ad þvo líkid var þad lagt upp á
loptid. 38. Þared nú Lydda lá skammt frá Joppe,
fréttu Lærisveinarnir, ad Pétur væri þar, og
sendu tvo menn til hans med bón, ad hann ekki
vildi skorast undan ad koma til þeirra. 39.
Pétur fylgdist med sendimønnunum, og var
strax, sem hann kom, leiddur uppá loptid, hvar
allar ekkjurnar flykktust ad honum grátandi,
og sýndu honum kyrtla og yfirhafnir, sem
Dorkas hafdi gjørt, medan hún var lífs. 40.
Pétur baud þeim øllum út ad fara, beygdi
kné sín og badst fyrir, snérist svo ad líkinu og
sagdi: Tabíta! stattú upp! hún lauk þá upp
augunum, sá Pétur og settist upp. 41. Hann
rétti henni þá hønd sína og reisti hana á fæt-
ur, kalladi sídan á þá heiløgu og ekkjurnar, og
afhendti þeim hana lifandi. 42. En þetta
vard hljódbært um alla Joppe, og margir
trúdu á Herrann. 43. Pétur dvaldi lánga
tíd í Joppe hjá Sútara nokkrum, er Símon
hét.

## 10. Kapítuli.

Engill vitrast Kornelíusi, sem sendir til Péturs; Pét-
ur fær sýn, og fer til Sesareu, heldur rædu um
Krist fyrir Kornelíusi og ødrum heidíngjum, er
ødlast heilagan Anda og láta skírast.

1. Madur nokkur var í Sesareu, ad nafni
Kornelíus, hundrads høfdíngi í þeim herflokki,
er kalladist hinn Italíski; 2. hann var gud-
rækinn og óttadist Gud, samt allt hans hús,
gaf og fólki miklar ølmusur og bad iduglega
til Guds. 3. Þessi sá í vitrun, nær níundu
stundu dags, bersýnilega Engil Drottins gánga
inn til sín og segja vid sig: Kornelíus! 4. en
hann stardi felmtsfullur á Engilinn og spurdi:
Herra! hvad viltú mér? Engillinn svaradi:
þínar bænir og ølmusu-gjørdir eru uppstígnar
til minnis fram fyrir Gud b); 5. og send
þú nú menn til Joppe ad láta sækja Símon
þann, er kallast Pétur, 6. og gistir hjá Sú-
tara nokkrum Símoni, hvørs hús liggur vid sjóinn.
7. Þegar Engillinn, sem taladi vid hann, var
burtfarinn, kalladi hann á tvo húskalla sína,
og einn gudrækinn strídsmann af þeim, er hon-
um voru handgengnastir, 8. sagdi þeim frá
øllu og sendi þá til Joppe.

9. Daginn eptir, þá þeir voru á leidinni
og nálgudust borgina, sté Pétur uppá húss-
þakid til ad gjøra bæn sína, um hádegi;
10. en med því hann húngradi, vildi hann
matar neyta; en medan verid var ad mat-
reida, vard hann frá sér numinn, 11. og sá
himininn opnast og eitt kér fara nidur, líkt
stórum líndúk, uppbundnum í fjórum hornum,
er látid var nidur síga til jardar. 12. Þar í
voru allsháttud ferfætt dýr, villi-dýr og skrid-
kvikindi og fuglar himins. 13. Jafnframt
heyrdi hann raust segja til sín: statt upp, Pétur!
slátra og et! 14. Pétur ansadi: nei, Drottinn, eng-
anveginn! því aldrei hefi eg etid neitt vanhei-

V. 35. Saron, frjóssamt sléttlendi milli Joppe og Sesareu. V. 36. a. Þad er á Íslensku: Rá eda hind. V. 4. b. Sem lætur þær ekki gleymast. V. 11, sbr. Matt. 3, 16. Mark. 1, 10. Lúk. 3, 21. V. 14. sbr. 3 Mós. 11, 4—8; 10—12, 13—20, 29—31, 41— 47.

lagt edur óhreint. 15. Þá sagdi røddin í annad sinn til hans: hvad Gud hefir gjört hreint, þad skalt þú ekki meta vanheilagt. 16. Þetta skédi þremsinnum og kérid vard numid aptur til himins. 17. Medan Pétur var nú ad ígrunda, hvad sýn þessi mundi þýda, sjá! þá stódu sendimenn Kornelíusar, sem búnir voru ad uppspyrja Símonar hús, vid fordyrid og voru ad kalla og spyrja, 18. hvørt Símon, sem kallast Pétur, væri þar ekki til gistíngar. 19. En er Pétur hugleiddi sýnina, sagdi Andinn honum: sjá! þrír menn leita þín, 20. stattú þess vegna upp og stíg ofan og far hiklaust med þeim, því eg hefi sendt þá. 21. Pétur gékk þá nidur til mannanna og sagdi: sjáid! eg er sá, sem þér spyrjid ad; hvørs erindis komid þér? 22. þeir svørudu: hundrads-høfdinginn Kornelíus, madur rádvandur og gudhræddur og ordsæll af allri Gydínga þjód, fékk vitran af heiløgum Engli, ad senda eptir þér til sín og heyra þín ord. 23. Pétur baud þeim inn og veitti þeim beina. Um morguninn stód hann upp og fór med þeim, og nokkrir af brædrunum, sem heima áttu í Joppe, fóru med honum. 24. Næsta dag komu þeir til Sesareu. Kornelíus vænti þeirra og hafdi bodid til sín frændum sínum og einka vinum. 25. Í því Pétur gékk inn, kom Kornelíus á móti honum, og laut honum med knéfalli. 26. Pétur reisti hann upp, og sagdi: stattú upp! eg em einnig madur, 27. gaf sig á tal vid hann, gékk sídan inn, og fann þar margmenni saman komid. 28. Hann sagdi þá til þeirra: þér vitid hvílíkt ódædi þad er Gydíngi, ad samlaga sig edur heimsækja útlendínga a); en Gud er búinn ad sýna mér, ad eg á engan mann ad kalla vanheilagan edur óhreinan, og þess vegna kom eg mótmælislaust, þá eptir mér var sendt. 29. En nú vilda eg spyrja, hvørra orsaka vegna þér hafid sendt eptir mér? 30. Kornelíus svaradi: frá fjórda degi hér frá til þessarar stundar fastadi eg, og um níundu stundu badst eg fyrir í húsi mínu; þá skédi þad, ad madur stód frammi fyrir mér í skínandi klædum, og sagdi: 31. Kornelíus! þín bæn er heyrd, og þinna ølmusugjørda er minnst fyrir Gudi; 32. Sendú því til Joppe og láttú kalla híngad Símon, er kallast Pétur, er gistir í húsi Símonar Sútara vid sjóinn; þá hann kémur, mun hann fræda þig. 33. Þessvegna senda eg strax til þín, og hefir þú gjört vel ad þú komst. Nú erum vér hér allir til stadar fyrir augsýn Guds, til ad heyra allt hvad þér er af Gudi umbodid. 34. Þá lauk Pétur upp sínum munni, og sagdi: sannlega er eg kominn ad raun um, ad hjá Gudi er ekkért manngreinar álit, 35. heldur er hvørr sá, sem óttast hann og hagar sér rádvandlega, honum þókknanlegur af hvada þjód, sem hann er. 36. Þér hafid heyrt um þann lærdóm, sem Gud hefir sendt Ísraels børnum, þann er bodar frid fyri Jesúm Krist, sem ad er Drottinn allra. 37. Þér þekkid þá atburdi, sem skéd hafa um allt Gydíngaland, og hófust í Galíleu eptir þá skírn, sem Jóhannes bodadi, 38. hvørsu Gud smurdi Jesúm af Nasaret med heiløgum Anda og krapti; ad hann gékk í kríng, gjørdi gott og græddi alla, sem af djøflinum voru undirokadir; 39. því Gud var med honum, og vér erum vottar ad øllu, sem hann gjørdi á Gydíngalandi og í Jerúsalem. Þennan aflífudu þeir og festu á tré, 40. en Gud uppvakti hann á þridja degi og gaf þad, ad hann birtist, 41. ekki øllu fólki, heldur þeim af Gudi ádur útvøldu vottum, oss, sem átum og drukkum med honum, eptir ad

V. 16. Med þessari vitran undirbjóst Pétur til ad prédika kristni heidnum mønnum, sbr. Kap. 15, 7—20. V. 28. a. Sbr. Kap. 11, 3. V. 34—35. sbr. Es. 2, 13—22.

hann var upprisinn frá daudum; 42. og hann baud oss ad kunngjøra fólkinu og vitna, ad hann sé af Gudi útvalinn Dómari lifendra og daudra. 43. Um þenna vitna allir Spámenn, ad vegna hans fái hvørt, sem á hann trúir, synda kvittun.

44. Adur en Pétur hafdi úttalad þessi ord, féll heilagur Andi yfir alla þá, sem ræduna heyrdu. 45. Þá undrudust þeir trúudu umskornu, sem med Pétri høfdu komid, ad yfir heidíngja skyldi líka úthellast gjøf heilags Anda; 46. því þeir heyrdu þá tala túngum og vegsama Gud. 47. Pétur tók þá til orda: gétur nokkur varnad þeim vatnsins, ad þeir skírist ekki, sem medtekid hafa heilagan Anda, eins og vér? 48. og hann baud ad skíra þá í nafni Drottins. Sídan bádu þeir hann ad dvelja hjá sér nokkra daga.

## 11. Kapítuli.

*Pétur afsakar sína umgengni vid heidingja; Kristnir, sem tvístrast hofdu, kénna vída; Páll og Barrabas prédika í Antíokíu; Agapus spáir hallæri, og ølmusum er safnad.*

1. Þad kom til eyrna Postulunum og bræd runum í Júdæu, ad einninn heidíngjar hefdu tekid vid Guds ordi, 2. og þegar Pétur kom heim til Jerúsalem, átøldu hinir umskornu hann svo segjandi: 3. þú hefir heimsókt óumskorna og samneytt þeim. 4. En Pétur innti þeim þá alla søguna frá rótum, og sagdi: 5. eg var í borginni Joppe á bæn, og sá, frá mér numinn, í sýn, kér koma frá himni, ásýndum sem líndúk, uppbundinn í fjórum hornum, og fara ad mér; 6. og er eg festi sjónir á því, vard eg var vid og sá í því allskonar ferfætt dýr, villidýr, skridkvikindi og fugla himins. 7. Svo heyrda eg og raust, sem sagdi til mín: stattú upp, Pétur! slátra og et! 8. eg svaradi: nei, Drottinn, enganveginn! því aldrei hefir neitt óheilagt edur óhreint komid mér í munn. 9. Þá sagdi raustin af himni í annad sinn: hvad Gud hefir gjørt hreint, þad skaltú ekki meta vanheilagt. 10. Þetta skédi þrisvarsinnum, sídan var allt aptur til himins upp dregid; 11. og sjá! samstundis stódu þrír menn vid húsid, sem vér vorum í, sendir frá Sesareu til mín, 12. og Andinn sagdi mér ad fylgjast med þeim hiklaust. Samferda mér urdu þessir sex brædur, og vér gengum inn í hús mannsins. 13. Hann sagdi okkur frá, hvørninn hann hefdi sjed Engil í húsi sínu, er stód þar og sagdi vid hann: sendú menn til Joppe og láttú sækja Símon, sem kallast Pétur; 14. hann mun segja þér þau sannindi sem munu gjøra þig og allt þitt hús hólpid. 15. En strax og eg fór ad tala, féll heilagur Andi yfir þá, eins og yfir oss í øndverdu. 16. Eg minntist þá orda Drottins, er hann sagdi: Jóhannes skírdi med vatni, en þér skulud skírast med heiløgum Anda. 17. Fyrst Gud gaf þeim nú sømu gjøf og oss, þá þeir trúdu á Herrann Jesúm Krist, hvørninn var eg þess þá umkominn ad aptra Gudi? 18. Þegar þeir høfdu þetta heyrt, þøgnudu þeir og vegsømudu Gud segjandi: Gud hefir þá einnig unnt heidnum þjódum endurvitkunar til sáluhjálpar.

19. Þeir, sem tvístrast høfdu í ofsókninni gégn Stefáni, fóru allt til Fønisíu-lands, til Sýprus eyar og til Antíokkíu borgar, en báru ekki lærdóminn upp fyrir ødrum en Gydíngum einum. 20. Samt voru nokkrir medal þeirra, ættadir úr Sýprus og Sýrene, sem, vid komu sína til Antíokkíu, tøludu fyrir Grikkjum fagnadar bodskapinn um Herrann Jesús. 21. Og hønd Drottins var med þeim, svo ad mikill fjøldi trúdi og snéri sér til Drottins. 22. Þegar fregnin hér um barst til eyrna safnad-

V. 42, sbr. 1 Tess. 4, 16—17. V. 16. Kap. 1, 5. samanb. med Matt. 3, 11. V. 19. Kap. 8, 1.

arins í Jerúsalem, sendi hann út Barnabas, ad hann færi til Antíokkíu; 23. og sem hann kom og sá náð Guðs, gladdist hann, og uppörfaði alla að halda sér við Drottinn með einlægu hjarta, 24. því hann var góður maður, fullur heilags Anda og trúar; og mikill fjöldi bættist Drottni. 25. Þaðan fór Barnabas til Tarsus til að leita að Sál, 26. og er hann hafði fundið hann, fékk hann hann með sér til Antíokkíu, og varð það af, að þeir voru saman allt árið hjá þeim söfnuði, og kénndu þar fjölda fólks, svo að í Antíokkíu nefndust Lærisveinarnir fyrst **Kristnir**. 27. Um sömu mundir komu Spámenn frá Jerúsalem til Antíokkíu; 28. meðal þeirra gekk einn fram, að nafni Agapus og sagði fyrir, af andagift sinni, að mikið hallæri mundi koma yfir gjörvallt landið, hvað og skéði undir Kládíus Keisara. 29. Lærisveinarnir álýktuðu því, hverr eptir sínum efnum, að senda nokkuð til bjargar bræðrunum, sem bjuggu í Júdeu, 30. hvað þeir og gjörðu, og sendu með það Barnabas og Sál til Öldúnganna.

## 12. Kapítuli.

Heródes lætur drepa Jakob og fánga Pétur, þessi frelsast af engli; drambsemi Heródesar og dauði; Trúin útbreiðist; Barnabas og Sál ferðast og taka Markús með sér.

1. Á þeim sama tíma lagði Heródes Konúngur hendur á nokkra af söfnuðinum til að misþyrma þeim. 2. Þannig lét hann drepa Jakob, bróður Jóhannesar, með sverði, 3. og er hann sá að þetta gédjaðist Gyðíngum vel, héldt hann áfram og lét einninn grípa Pétur, en það var um daga hinna ósýrðu brauðanna a). 4. Nú sem hann hafði fángað hann, lét hann setja hann í myrkvastofu, og afhendti hann sextán stríðsmönnum, er til skiptis, fjórir og fjórir í senn, skyldu gæta hans, og ætlaði sér eptir Páskana, að framselja hann fólkinu. 5. Pétur var þannig geymdur í myrkvastofu, en Söfnuðurinn bað án afláts fyrir honum til Guðs. 6. Nóttina áður en Heródes ætlaði að láta leiða hann fram, svaf Pétur milli tveggja stríðsmanna, bundinn með tveimur viðjum og varðmenn úti fyrir dyrunum gjættu myrkvastofunnar. 7. En sjá! þá stóð engill Drottins hjá honum og ljós leiptraði um húsið; hann laust á síðu Péturs, vakti hann og sagði: stattú fljótt upp! þá féllu viðjurnar af höndum hans. 8. Síðan sagði engillinn til hans: belta þú þig, og bitt á þig skó þína. Hann gjörði svo. Engillinn sagði enn fremur: kasta yfir þig skykkju þinni og fylg mér. 9. Hann gékk út og fylgdi honum, en ekki vissi hann að þetta, sem engillinn gjörði, væri svo í raun og veru, heldur meinti hann sig sjá sýn. 10. Þá þeir höfðu gengið í gégnum hið fyrsta og annað varðhald, komu þeir til járnhliðsins, er liggur til borgarinnar, og lauk það sér sjálft upp fyrir þeim. Og þá þeir voru komnir útum það, gengu þeir áfram um eitt stræti, og allt í einn skildi engillinn við hann. 11. Þegar Pétur kom til sjálfs síns, sagði hann: nú veit eg sannlega, að Drottinn hefir sendt sinn engil og hrifið mig úr höndum Heródesar og frá allri ofsókn Gyðínga lýðs. 12. En sem hann var búinn að koma þessu fyrir sig, gékk hann að húsi Maríu, Móður Jóhannesar, er kallast Markús. Þar var fjölmenni fyrir, sem hafði safnast þángað og voru á bæn. 13. Pétur drap á dyra hurðina, og stúlka gékk fram að nafni Róde, til að hlusta eptir; 14. en er hún þekkti málróm Péturs, varð fögnuðurinn svo mikill, að hún lauk ekki upp, heldur hljóp inn og sagði að Pétur stæði úti. 15. Þeir sögðu

V. 1. Heródes Agrippa, sonarsonur Heródes mikla, (Matt. 2, 1). V. 3. *a.* Þ. e. Páskana.

til hennar: þú ert frávita. En hún stód fast á því ad svo væri. Þá søgdu þeir: þad er þá hans engill. 16. Pétur lét ekki af ad berja ad dyrum, og er þeir luku upp og sáu hann, urdu þeir frá sér. 17. Hann bendti þeim med hendinni ad þeir þegdu, og sagdi þeim ýtarlega frá, hvørninn Drottinn hefdi útleidt sig úr myrkvastofunni, bad þá líka ad kunngjøra þetta Jakobi a) og hinum brædrunum, en fór sjálfur þadan og í annan stad.

18. Þegar dagadi kom ekki lítid fát á strídsmennina, hvad af Pétri væri ordid. 19. En er Heródes hafdi leitad hans og fann hann ekki, lét hann ransókn gánga yfir vardmennina og baud ad aflífa þá, fór sídan burt úr Júdeu til Sesareu, hvar hann settist um kyrrt; 20. því honum var gramt í skapi vid Týrus og Sídóns menn; en þeim kom saman um ad gjøra út sendimenn til hans, fengu svo í fylgi med sér Blasíus, Konúngsins Stallara, og bádust fridar, af því land þeirra fékk vistir frá (løndum) Konúngsins. 21. Á tilteknum degi klæddist Heródes Konúngs skrúda, settist í hásæti og héldt rædu til þeirra. 22. Almúginn hrópadi þá upp: Guds rødd er þetta, en ekki manns. 23. Jafnsnart sló Engill Drottins hann, søkum þess hann gaf ekki Gudi dýrdina b), var uppetinn af ormum og dó.

24. En Guds ord útbreiddist og efldist. 25. Barnabas og Sál snéru aptur frá Jerúsalem, ad afloknu sínu erindi, og tóku med sér Jóhannes, ad vidurnefni Markús.

## 13. Kapituli.

Barnabas og Sál fá kollun ad kénna heidíngjum; Markús yfirgéfur þá; Páll prédikar í Pisidíu; Gydíngar verda uppvægir; Páll og Barnabas fara til Íkoníu.

1. Í Søfnudinum í Antíokkíu voru ekki allfáir Spámenn og Lærifedur c), svo sem Barnabas, Símon, ad auknefni Níger, Lúsíus frá Sýrene, Manaen, samfóstri Heródesar Fjórdúngshøfdíngja, og Sál. 2. Eitt sinn er þeir þjónudu Drottni og føstudu, sagdi heilagur Andi: takid frá handa mér Barnabas og Sál, til þess verks, sem eg hefi þeim ætlad. 3. Þeir føstudu þá og bádust fyrir, løgdu hendur yfir þá, og létu þá svo fara. 4. Þessir, sem af heiløgum Anda voru útsendir, fóru til Selevsíu og sigldu þadan til Sýprus. 5. En medan þeir voru í Salamis, bodudu þeir Guds erindi í samkunduhúsum Gydínga. Jóhannes høfdu þeir fyrir medhjálpara d). 6. En sem þeir fóru um alla eyuna til Pafus e), fundu þeir þar tøfra mann nokkurn, fals-spámann, Gydínga kyns, ad nafni Bar-Jesús; 7. hann var med landstjórnaranum Sergíusi Páli, manni hyggnum, hvørr ed baud til sín Barnabasi og Sáli, og óskadi ad heyra Guds ord. 8. Þá stód móti þeim Elímas, tøfra vitríngurinn — því svo þýdir nafn þetta — hann reyndi til ad snúa Land-stjórnaranum frá trúnni. 9. En Sál, hvørr ed og hét Páll, vard fullur af heiløgum Anda, hvessti á hann augun og sagdi: 10. ó þú djøfuls sonur! fullur alls fals og flærædis, óvinur allrar réttvísi, lætur þú aldrei af ad rángsnúa réttum vegum Drottins? 11. vit nú, ad hønd Drottins skal hitta þig, og blindur skaltú verda og ekki sjá sól um tíma. Jafnsnart féll yfir hann þoka og myrkur, svo ad hann ráfadi um kríng, og leitadi einhvørs, er leiddi hann. 12. Þegar Landstjórnarinn leit

V. 17. *a.* Forstødumanni safnadarins í Jerúsalem, Kap. 15, 13, 21, 18. Gal. 1, 19. 2, 9—12. V. 20. 1 Kóng. 5, 11. Esek. 27, 17. V. 23. *b.* Þ. e. søkum þess hann þakkadi ekki Gudi upphefd sína. V. 1. *c.* sbr. 1 Kor. 12, 10. Ef. 4, 11. V. 5. *d.* Nl. í kristnibodinu. V. 6. Í Pafus sat landshøfdinginn.

þenna atburd, trúdi hann og undradist kénníngu Drottins.

13. Páll og þeir, sem med honum vóru, sigldu nú frá Pafus, og komu til Perge í Pamfilíu, utan Jóhannes, hann skildi vid þá og snéri aptur til Jerúsalem. 14. Hinir héldu áfram frá Perge í Antíokkíu í Pisidíu landi, gengu inn í samkundu-húsid á hvíldardegi og settust nidur. 15. En eptir ad lesid hafdi verid í løgmálinu og spámønnunum, sendu samkunduforstjórarnir til þeirra og létu segja þeim: gódir menn og brœdur! ef þér hafid nokkud ad mœla til uppbyggíngar fólkinu, þá talid. 16. Páll stód þá upp og eptir ad hafa bedid sér hljóds med hendinni, rœddi svo: þér, Israels menn! og þér, sem Gud óttist, heyrid! 17. Gud þessa fólks útvaldi fedur vora og efldi fólkid, medan þad var útlendt í Egyptalandi; þadan útleiddi hann þad med upplyptum armlegg, 18. og annadist í eydimørkinni nœrri fjørutíu ár. 19. Sídan afmádi hann sjø þjódir í Kanaan og skipti med þeim þeirra landi. 20. Eptir þad, um nœrri því fjøgur hundrud og fimtíu ár, gaf hann þeim dómara, allt til Samúels spámanns. 21. Þá beiddust þeir Konúngs, og Gud gaf þeim Sál Kísson, mann af Benjamíns ætt, í fjørutíu ár. 22. En er hann hafdi fellt hann, hóf hann Davíd þeim til Konúngs, um hvørn hann þar hjá vitnadi: „eg hefi fundid Jesseson, sem mér gédjast, og framkvœma mun allann minn vilja". 23. Af þessa manns afspréngi lét Gud, eptir sínu fyrirheiti, koma Israels Frelsara Jesúm, 24. og rétt á undan hans komu bodadi Jóhannes ydrunar skírn øllum Israels lýd. 25. En er Jóhannes hafdi endad sitt skeid, sagdi hann: eg em ekki sá, sem þid haldid, heldur sjáid! sá kémur eptir mig, hvørs skóþvengi eg em ekki verdugur ad leysa. 26. Gódir menn og brœdur! þér nidjar Abrahams, og hvør einn ydar á medal, sem óttast Gud! ydur er sendt ord þessa hjálprœdis; 27. því Jerúsalems borgar-menn og þeirra høfdíngjar, hafa, med vanþekkíngu sinni á honum og spámannanna skíru ordum, sem hvørn helgan dag eru lesin, og med því ad fordœma hann, ollad því ad þau rœttust. 28. Því jafnvel þótt þeir enga daudasøk fyndi, krøfdu þeir samt af Pílatusi ad hann yrdi líflátinn. 29. Eptir ad þeir þannig høfdu uppfyllt allt hvad um hann var ritad, var hann tekinn nidur af trénu og lagdur í grøf, 30. en Gud reisti hann frá daudum, 31. svo hann sást marga daga af þeim, sem høfdu farid med honum úr Galíleu upp til Jerúsalem, hvørjir ad eru vottar hans til fólksins, 32. og vér berum ydur þessa gledifregn um fyrirheitid, sem skédi til fedranna, ad Gud er búinn ad efna þad vid oss børn þeirra, 33. med því ad láta Jesúm upprísa, eins og skrifad er í Sálminum: „þú ert minn Sonur, í dag hefi eg þig gétid". 34. En ad hann hafi reist hann frá daudum, sem aldrei framar skyldi hverfa til rotnunar, þar um taladi hann þanninn: „eg mun efna vid ydur þann heilaga sáttmála sem eg gjørdi vid Davíd"; 35. hvørs vegna hann segir á ødrum stad: „þú munt ekki leyfa ad þinn heilagi kénni rotnunar". 36. Nú er Davíd, eptir ad hafa þjónad ad Guds tilgángi sína lífstíd, dáinn og lagdur hjá fedrum sínum og kénndi rotnunar; 37. en sá, hvørn Gud uppreisti, hann kéndi ekki rotnunar. 38. Því sé ydur vitanlegt, gódir menn og brœdur, ad hans vegna bodast ydur synda

V. 18. sjá 2 Mós. 4. 7. 8. 9. 10. 12.—14. V. 21. sjá 1 Sam. 8, 5. V. 22. 1 Sam. 13, 11. 16, 12. Sálm. 89, 21. V. 25. Jóh. 1, 20. Lúk. 3, 16. V. 33. Sálm. 2, 7. sbr. Róm. 1, 4. V. 34. Es. 55, 3. V. 35. Sálm. 16, 10.

fyrirgéfníng, 39. og það, sem þér, eptir Mó-
sis løgmáli, ekki gátuð fengið lausn frá, við
það allt skuluð þér, hvørr og einn, sem á hann
trúið, kvittir verða hans vegna. 40. Sjáið
því til, að ekki rætist á yður um-mæli spá-
mannanna: „gésið gætur að, þér smánarar!
41. undrist og verðið að engu; því gjørn-
íng a) mun ég gjøra á yðar døgum, gjørn-
íng, hvørjum þér ekki munuð trúa, þó ein-
hvørr segði yður hann". 42. Þegar þeir
gengu út, báðu menn þá að tala sama erindi
næsta helgan dag, 43. og er samkoman skildist
að, fylgdu margir Gydíngar og guðræknir
menn, er til Gydínga trúar høfðu snúist, Páli
og Barnabasi, sem með umtølum sínum hvøttu
þá til að halda sér føstum við Guðs náð.
44. Helgina næst eptir kom nærstum gjør-
vøll borgin saman til að heyra Guðs orð. 45.
En er Gydíngar litu mann-mergðina, fylltust
þeir vandlætíngar og tøluðu með mótmælum
og lastyrðum gégn því, sem Páll kéndi. 46.
Páll og Barnabas søgðu þá einarðlega: Guðs
orð hlaut fyrst að berast upp fyrir yður, en
þar þér burtskúsið því og metið yður sjálfa
ekki verðuga eilífs lífs, sjáið! þá snúum vér oss
til heiðinna manna, 47. því svo hefir Drott-
inn boðið oss: „ég hefi sett þig til ljóss heiðn-
um þjóðum, að þú sért til hjálpræðis til jarð-
arinnar ystu endimarka." 48. Þegar heið-
íngjarnir heyrðu þetta, gløddust þeir og vegsøm-
uðu orð Drottins, og svo margir, sem til ei-
lífs lífs voru ætlaðir, urðu trúaðir. 49. Nú
útbreiddist orð Drottins um allt bygðarlagið;
50. en Gydíngar æstu upp málsmetandi konur
sem tekið høfðu Gydínga trú og fyrirmenn
borgarinnar, og vøktu ofsókn gégn Páli og
Barnabasi, og ráku þá burt úr sínu héraði.
51. Þeir hristu þá duptið af fótum sér á þá,
og fóru til Ikoníu; 52. en Lærisveinarnir b)
fylltust føgnuði og helgum Anda.

# 14. Kapítuli.

Páll og Barnabas kénna í Ikoníu og Lystra; Páll læknar halltan mann; þeir eru haldnir vera Guðir; Páll er grýttur, en kémst til Derbe. Þeir Barnabas snúa aptur til Antíokkíu.

1. Það skéði í Ikoníu borg, þá þeir ásamt
gengu inn í samkunduhús Gydínga, að þeir kéndu
svo, að mikill fjøldi Gydínga og Grikkja urðu
trúaðir. 2. En þverlyndir Gydíngar risu á
móti og spilltu hugar-þeli heiðíngjanna við
bræðurna. 3. Samt dvøldu þeir þar lángan
tíma og prédikuðu skøruglega í Drottni c),
hvørr eð veitti meðvitni orði sínnar náðar og
lét jarteiknir og stórmerki ské af þeim. 4. Tví-
skiptist þá borgarmúgurinn svo, að nokkrir héldu
með Gydíngum, en aðrir með Postulunum. 5.
En er þessir urðu varir við, að hugur til heið-
íngja og Gydínga, sem og yfirmanna þeirra,
hneigðist til að smána þá d) og grýta, 6. flúðu
þeir burt til borga Lykaoníu-lands, Lystra og
Derbe, samt héraðsins í kríng, 7. og boðuðu
þar náðarboðskapinn. 8. Í Lystra var maður
fóthrumur, hvørr eð sat, af því hann var hallt-
ur frá móðurlífi og hafði aldrei gétað gengið.
9. Hann hlustaði á ræðu Páls, og er þessi festi
auga á honum og merkti trú hans, að sér yrði
lækníngar auðið, sagði hann með hárri raustu:
10. stattú upp réttur á þínar fætur! og hann
støkk upp og gékk. 11. Þegar múgurinn sá,
hvað Páll gjørði, hóf hann sína raust og sagði
á Lykaónísku: Guðirnir eru í manna líki nið-
urstignir til vor. 12. Barnabas nefndu þeir

V. 41. Habak. 1, 5 ff. *a.* Þ. e. dómur Guðs yfir þeim vantrúuðu. V. 47. Es. 49, 6. V. 48, Sbr. Róm. 13, 1; øll gjæði, sem oss hlotnast, eru Guðs ráð og náðargjøf. V. 52, *b.* þ. e. kristnir. V. 1. sjá Kap. 6, 1. V. 3. *c.* Í trausti Guðs fulltíngis. V. 5. *d.* Pál og Barnabas.

Seif a), en Pál Hermes, af því hann fram=
bar ordid; 13. en Prestur Seifs, hvørs hof
stód fyri framan borgina, kom med naut og
kransa til dyranna b) og vildi fórnfæra ásamt
med fólkinu. 14. Þegar Postularnir Barna=
bas og Páll fengu þetta ad heyra, sundurrifu
þeir klædi sín og stukku fram í mannþraung=
ina, kølludu og søgdu: 15. gódir menn! hví
gjørid þér slíkt? vér erum menn breiskir, eins
og þér; en bodum ydur þann fagnadar sid, ad
þér snúist frá þessum fánýtu gudum til lifanda
Guds, hvørr ed gjørt hefir himin, jørd og sjó,
og allt hvad í þeim er; 16. sá ed um fyri=
farandi aldir hefir lidid, ad sérhvør þjód gengi
sinn sjálfvalda feril, 17 þó hann aldrei hafi látid
sig án vitnisburdar, þared hann hvervetna gjørdi
ydur gott, veitti regn af himnum og frjóssam=
ar árs=tídir, og mettadi ydur med fædu og
føgnudi. 18. Ad svo mæltu gátu þeir naum=
ast stillt fólkid, ad þad færdi þeim ekki fórnir.
19. Sídan komu frá Antíokkíu og Ikoníu Gyd=
íngar, þeir ed fengu lýdinn á sitt mál, svo hann
beytti steinum á Pál og dró hann út úr borg=
inni og ætladi hann daudan vera. 20. En
er Lærisveinarnir þyrptust kríngum hann, stód
hann upp og gékk í borgina. Um morguninn
eptir fór hann med Barnabasi til Derbe.
21. Og sem þeir høfdu bodad Gudspjallid
í þeirri borg og fengu þar marga Lærisveina,
snéru þeir aptur til Lystra, Ikoníu og Antí=
okkíu, 22 styrktu sálir Lærisveinanna og á=
minntu þá ad standa stødugt í trúnni, og ad
oss byrjadi fyrir margfaldar þrautir ad komast
í Guds ríki. 23. Øldúnga létu þeir hver=
vetna útvelja í Søfnudunnm, bádust svo fyrir
og føstudu, og fólu þá sídan þeim Drottni,
vid hvørs trú þeir høfdu tekid. 24. Þá þeir
høfdu yfirfarid Pisidíu, komu þeir til Pam=
filíu, 25. og kunngjørdu ordid í Perge; 26.
svo fóru þeir nidur til Attalíu og sigldu þad=
an til Antíokkíu, hvadan þeir, med árnun Guds
fulltíngis, høfdu gengid í þad verk, sem þeir
nú voru búnir ad af=ljúka. 27. Þegar þeir
voru þángad komnir, kølludu þeir Søfnudinn
saman og søgdu frá, hvad Gud hefdi fram=
kvæmt fyrir þeirra hønd, og ad hann hefdi
opnad heidíngjunum dyr trúarinnar, 28. og
dvøldu ekki allstutta tíd hjá Lærisveinunum.

## 15. Kapítuli.

Páll og Barnabas sendast til Jerúsalem til ad spyrja, hvert kristnir þyrftu ad halda Mósis logmál: og fá svar; þeir koma til Antíokkíu aptur ásamt Júdasi og Sílasi; Barnabas og Páll skilja.

1. Nú komu nokkir ofan frá Júdeu, sem
kendu brædrunum svo: ef þér ekki umskérist ad
sid Mósis, þá gétid þér ekki ordid hólpnir.
2. Þegar úr þessu vard ekki lítil misklíd og
þrætni milli Páls og Barnabasar og þeirra,
var þad afrádid ad Páll og Barnabas, og
nokkrir adrir af hinum, færu til Postulanna
og Øldúnganna upp til Jerúsalem, áhrærandi
þennann ágreiníng. 3. Søfnudurinn fylgdi
þeim á veg. Sídan ferdudust þeir um Fønisíu
og Samaríu lønd og søgdu frá sidaskiptum c)
heidíngjanna, hvad ed olli mikils fagnadar
øllum brædrunum. 4. En þegar þeir komu
til Jerúsalem, var þeim vel tekid af Søfnudin=
um og Postulunum og Øldúngunum, hverjum
þeir og inntu, hversu miklu Gud hefdi til leid=
ar komid fyrir þeirra umsýslun. 5. En nokkrir
trúadir af Faríseanna flokki risu þá upp, og
søgdu: ekki má annad, enn ad þeir umskérist,
og þeim sé tilhaldid ad halda Mósis løg.
6. Þá søfnudust Postularnir og Øldúngarn=
ir saman til ad líta á þetta mál. 7. Eptir

V. 12. *a.* Seifur, ædsti Gud Grikkja, en Hermes, erindsreki gudanna. V. 13. *b.* Líklega dyranna á húsi því, er Páll og Barnabas voru í. V. 3. *c.* Þ. e. kristnum. V. 7. Sjá Kap. 10.

lánga umræðu, stóð Pétur upp og mælti:
góðir menn og bræður! þér vitið, að Guð
fyrir laungu hefir hagað því svo, að eg á
meðal vor yrði valinn til þess, að heiðíngjar
skyldu fyrir minn munn heyra náðarboðskapinn
og trúa; 8. og að Guð, sá eð allra hjörtu
þekkir, vitnaði þá þeim í vil, gefandi þeim
heilagann Anda, eins og oss, 9. og gjörði
engann greinarmun vor og þeirra, þar hann
hreinsaði með trúnni þeirra hjörtu. 10. Hví
freistið þér þá Guðs, með því að leggja það
ok á Lærisveinanna háls, er hvörki feður vorir
né vér megnuðum að bera? 11. Vér trúum
þó því, að vér verðum hólpnir fyrir náð Drott-
ins Jesú, eins og þeir. 12. Nú þagnaði
múgurinn, og hlustaði á frásögu Barnabasar
og Páls um það, hvörsu mikil tákn og stór-
merki Guð hefði látið þá framkvæma meðal
heiðinna þjóða. 13. Eptir að þeir voru þagn-
aðir, tók Jakob til máls og sagði: 14. góðir
menn og bræður! heyrið mig! Símon hefir
frásкírt, hvörninn Guði þókknaðist í fyrstu að
útvelja af heiðíngjum fólk til sinnar viður-
kenníngar, 15. og þessu samhljóða um-mæli
spámannanna, því svo stendur skrifað: 16.
„eptir þetta mun eg koma aptur og endurbygg-
ja þá föllnu tjaldbúð Davíðs; það, sem
hrunið er af henni, vil eg uppbyggja og reisa
hana við aptur, 17. svo að hinir aðrir menn
leiti Drottins, og allar þær þjóðir yfir hvör-
jum mitt nafn nefnist a)". 18. Þetta segir
Guð, sá eð hefir framkvæmt þetta b). 19.
Því álykta eg, að ekki skuli íþýngja þeim, er
frá heiðni snúast til Guðs; 20. heldur skrifa
þeim til, að þeir haldi sér frá allri flekkan,
af skurðgoðum, og frá frillulífi og frá köfnuðu
og frá blóði. 21. Því frá fornri tíð hefir
Móses haft sína prédikara í hvörri borg, og
er lesinn í samkundunum alla helgidaga.
22. Þá leitst það Postulunum og Öldúngun-
um og öllum söfnuðinum, að útvelja menn af
sinni álfu og senda þá með Páli og Barnabasi
til Antíokkíu, Júdas, kallaðan Barsabas og
Sílas, hvörjir er stóðu í miklu áliti hjá bræðr-
unum, 23. og skrifuðu með þeim svolátandi
bréf: vér Postular, Öldúngar og bræður,
heilsum bræðrunum, er frá heiðni hafa snúist
í Antíokkíu, Syríu og Silisíu. 24. Þar eð
vér höfum heyrt, að nokkrir, er frá oss hafa
farið, hafi óróað yður með orðum sínum og
truflað yðar samvitskur, með því að segja, að
þér eigið að umskérast og halda lögmálið,
hvörjum vér höfum ekkért slíkt boðið; 25.
svo hefir oss litist, sammála orðnum um þetta
efni, að útvelja og senda til yðar nokkra menn,
með vorum elskulega Barnabasi og Páli, 26.
mönnum, er lagt hafa sitt líf í hættu fyrir
nafn Drottins vors Jesú Krists. 27. Vér
höfum því útsendt Júdas og Sílas, að þeir
munnlega birti yður sama. 28. En það er
atkvæði heilags Anda og vort: að engin þýngsli
skuli yður uppáleggjast umfram þessi, sem
nauðsynleg eru, 29. að þér haldið yður frá
afguðafórnum og frá blóði og frá köfnuðu og
frá frillulífi. Ef þér takið vara á þessu, gjörið
þér vel. Verið sælir!
30. Eptir það téðir sendimenn voru farnir,
komu þeir til Antíokkíu, samankölluðu söfnuð-
inn og afhendtu bréfið. 31. En er menn
lásu það, urðu þeir glaðir af slíkri huggun.
32. Júdas og Sílas, er sjálfir voru einnig
spámenn, áminntu þar hjá bræðurnar munn-
lega með mörgum orðum og styrktu þá c).
33. Og er þeir höfðu dvalið þar um tíma,

V. 16. Amos 9, 11. 12. V. 17. *a.* Þ. e. sem eru mitt fólk. V. 18. *b.* Þ. e. þetta sitt ráð, að heiðíngjar skyldu seinnameir, við Messíasar komu, verða og svo Guðs fólk. V. 20, sjá 1 Kor. 8—10. 3 Mós. 17, 13. V. 32. *c.* Það er: í kristilegri trú.

gáfu brædurnir þeim heimfarar leyfi med heilla óskum. 34. En Sílasi leitst ad vera þar eptir. 35. Páll og Barnabas héldu nú kyrru fyrir í Antíokkíu, kéndu og bodudu ord Drottins ásamt mørgum ødrum.

36. Eptir nokkra daga sagdi Páll vid Barnabas: førum aptur til ad vita hvørnin brædrunum lídur í øllum borgum, hvar vér høfum bodad Drottins ord. 37. Barnabas lagdi þá til, ad þeir tækju med sér Jóhannes, kalladan Markús, 38. en Páli leitst ad taka ekki þann mann med sér, er hljóp frá þeim í Pamfilíu, og hafdi ekki viljad gánga í verkid med þeim. 39. Ut af þessu sinnadist þeim, svo ad hvørr skildi vid annan; tók Barnabas med sér Markús og sigldi til Sýprus. 40. En Páll valdi sér Sílas og fór af stad, falinn Guds nád af brædrunum. 41. Hann tók leid sína um Sýrland og Silisíu, og styrkti søfnudina.

## 16. Kapítuli.

Páll umskér Tímóteus, vitjar safnadanna og kémur til Tróas; fær vitrun; fer til Masedoníu og snýr Lydíu til kristni; rekur út spásagnar anda; er húdstrýktur og settur í fángélsi; fángélsid opnast sjálfkrafa; fángavaktarinn tekur trú; Páll er látinn laus.

1. Og er hann kom til Derbe og Lystra, hitti hann þar einn Lærisvein ad nafni Tímóteus; módir hans var Gydínga ættar og hafdi tekid trú, en fadirinn var Grískur a). 2. Sá hafdi gódan ordstýr af brædrunum í Lystra og Ikoníu. 3. Páll vildi hafa þennan med sér og umskar hann, søkum Gydínga, er voru í þeim stødum, því allir vissu ad fadir hans var Grískur. 4. Þá þeir nú fóru um borgirnar, budu þeir mønnum ad halda þá setnínga, sem ályktadir voru af Postulunum og Øldúngunum í Jerúsalem. 5. En søfnudirnir styrktust í trúnni og fjølgudu dag frá degi. 6. Á ferd þeirra um Frygíu og Galataland var þeim bannad af heiløgum Anda ad kénna ordid í Asíu; 7. og sem þeir voru komnir ad Mysíu, áformudu þeir ad fara til Bityníu, en Andinn leyfdi þeim þad eigi. 8. Þeir fóru þá framhjá Mysíu og nidur til Tróas.

9. Páli vitradist þá sú sjón um nóttina, ad madur Masedonískur stód hjá honum, og bad hann svo segjandi: kom yfir til Masedoníu og hjálpadú oss! 10. Undir eins og hann hafdi þessa vitrun fengid, leitudumst vér strax vid ad komast yfir til Masedoníu, fullvissir um, ad Gud Drottinn hefdi kallad oss þángad til ad boda þar nádarbodskapinn. 11. Nú løgdum vér út frá Tróas og sigldum beinleidis til Samótrasíu, 12. en næsta dag til Neapólis og þadan til Filippí, sem er høfudborg í þeim hluta Masedoníu, og er (rómversk) nýlenda. 13. Í þessari borg dvøldum vér nokkra daga, og einn helgan dag gengum vér út fyrir borgarhlidid til árinnar b), þar sem vant var ad bidjast fyrir, settumst þar nidur og tøludum vid konur þær, sem þar voru samankomnar. 14. Og kona nokkur gudhrædd úr Týatíra borg, ad nafni Lydía, er seldi purpura, heyrdi til. Hennar hjarta opnadi Gud svo ad hún gaf gaum ad Páls rædu. 15. Og sem hún og hennar hús var skírt, bad hún oss svofeldum ordum: ef þid álítid mig trúa Drottni, þá komid í mitt hús og stadnæmist þar! og hún neyddi oss til þess.

16. Nú skédi svo, er vér gengum til bæna, ad þerna nokkur, sem hafdi spásagnar anda, mætti oss, hvør ed ávann lánardrottnum sínum mikid fé med því ad spá. 17. Hún hljóp ept-

V. 41, sjá v. 32. V. 1. sjá 2 Tím. 1, 5. a. Grískur þ. e. heidinn. V. 3. sjá 1 Kor. 9, 10. sbr. Gal. 2, 3. V. 4. sjá 15, 23—29. V. 13. b. Borgin Filippí lá vid ána Strýmon.

ir Páli og oss og hrópadi: þessir menn eru þjón-
ar Guds hins hærsta, þeir ed kunngjøra oss hjálp-
rædisins veg. 18. Þetta gjørdi hún í marga
daga. Páli fell þad illa, snéri sér vid og
sagdi til andans: eg skipa þér í nafni Jesú
Krists, ad þú farir út af henni! og hann fór
út á samri stundu. 19. Nú sem húsbændur
hennar sáu, ad sín ábata von var úti, gripu
þeir Pál og Sílas, og drógu þá á torgid til
Yfirvaldanna; færdu þá sídan høfudsmønnum
og søgdu: 20. þessir menn, sem eru Gydíng-
ar, óróa borg vora, 21. og boda oss sidu þá,
sem oss, rómverskum mønnum, leyfist hvørki ad
þýdast, né fylgja. 22. Múgurinn æstist og
gégn þeim, en høfudsmennirnir skipudu ad fletta
þá klædum og húdstrýkja þá. 23. Og eptir
þad þeir høfdu fengid mørg sløg, var þeim
kastad í myrkvastofu og myrkvastofuverdinum
bodid, ad gjæta þeirra vandlega. 24. Sam-
kvæmt skipuninni, kastadi hann þeim í hid
innsta vardhald, og setti fætur þeirra í stokk.

25. Um midnætti bádust þeir fyrir, Páll og
Sílas, og lofsúngu Gudi, en (hinir) fángarnir
hlustudu þar á. 26. Þá vard skyndilega jard-
skjálfti mikill, svo ad hristist grundvøllur fáng-
élsisins; jafnskjótt opnudust allar dyr og fjøtr-
arnir duttu af øllum; 27. en þá myrkvastofu-
vørdurinn vaknadi og sá myrkvastofu dyrnar
opnar, dró hann sverdid og vildi fyrirfara sér,
því hann héldt bandíngjana burtflúna. 28. En
Páll hrópadi þá upp og sagdi: gjør þér ekk-
ért íllt! vér erum hér allir. 29. Hann heimti
þá ljós, støkk inn og féll felmtsfullur til fóta
Páli og Sílasi, leiddi þá út og sagdi: 30.
Herrar! hvad á eg ad gjøra, svo eg verdi
hólpinn? 31. Þeir søgdu: trúdu á Drottinn
Jesúm Krist, þá verdur þú hólpinn og þitt hús.
32. Sídan tjádu þeir honum lærdóm Drottins
og øllum þeim, er í hans húsi voru; 33. því
samstundis um nóttina tók hann þá med sér og
þvodi benjar þeirra, og var hann strax skírd-
ur og allir hans menn. 34. Og sem hann
hafdi leidt þá í sitt hús, setti hann bord fyr-
ir þá, og var gladur ásamt øllu sínu heima-
fólki yfir því ad hann trúdi á Gud. 35.
Þegar bjart var ordid, sendu høfudsmennirnir
veldisþjónana a) med svolátandi skilabod: láttu
þessa menn lausa! 36. En myrkvastofuvørd-
urinn kunngjørdi Páli þessi ord: høfudsmenn-
irnir sendu híngad, ad þér skyldud lausir látast.
Gángid því nú út, og farid í fridi! 37. Páll
ansadi þeim: þeir hafa opinberlega látid húd-
strýkja oss, sem erum rómverskir menn, án dóms,
og setja í myrkvastofu, og nú ætla þeir leyni-
lega ad reka oss á burt. Ekki skal svo vera,
heldur komi þeir sjálfir og leidi oss út. 38.
Veldisþjónarnir kunngjørdu þessi ord høfuds-
mønnunum. Þeir urdu hræddir, þá þeir heyrdu
ad þad væru rómverskir menn, 39. komu og
fóru vel ad þeim, og er þeir høfdu leidt þá
út, bádu þeir þá ad fara úr borginni. 40.
Eptir ad nú Páll og Sílas voru sloppnir úr
þessu vardhaldi, fóru þeir til Lydíu, fundu þar
brædurna, upphvøttu þá, og fóru svo burt.

## 17. Kapituli.

Páll kénnir, en mætir ofsókn í Tessaloníku og Be-
róeaborg; fer til Atenuborgar, prédikar mót af-
gudadýrkun og um Jesúm; snýr nokkrum.

1. En er þeir høfdu farid um Amfípólis og
Appolloníu komu þeir til Tessaloníku, hvar ed
var samkunduhús Gydínga. 2. Páll gékk þar
inn til þeirra, eptir venju sinni, og þrjá helgi-
daga átti hann tal vid þá, útlagdi fyrir þeim
Ritníngarnar og setti þeim fyrir sjónir, 3. ad
Kristur hefdi átt ad lída píslir og rísa upp frá

V. 35. a. Veldisþjónar (Lictores) kølludust þjónar, sem gengu á undan ædstu yfirvøldum, báru veldismerkin fyrir þeim og greiddu veg þeirra.

daudum; og þessi er sá Jesús Kristur — sagdi hann — hvørn eg kunngjøri ydur. 4. Nokkrir af þeim létu sér segjast, og samløgdu sig Páli og Sílasi, svo og mikill fjøldi gudrækinna Grikkja og mikilsháttar konur ekki allfáar. 5. En Gydíngarnir tóku med sér nokkra vonda menn af þorparalýdnum, drógu flokk saman og gjørdu upphlaup í borginni, þustu svo ad húsi Jasons og leitudu ad þeim, til ad færa þá fyrir lýdinn. 6. En er þeir fundu þá ekki, drógu þeir Jason og nokkra brædur fyrir yfirmenn borgarinnar, og hrópudu: þeir menn, sem vakid hafa óeirdir um allann heim, eru hér komnir, 7. Jason hýsir þá og allir þessir breyta á móti Keisarans bodum, því þeir segja: ad annar sé Konúngur, og þad sé Jesús. 8. Þá vard almúginn uppvægur og yfirmenn borgarinnar, er þeir heyrdu þetta, 9. og létu Jason og hina adra setja vørdslur fyrir sig, og slepptu þeim svo; 10. en brædurnir komu Páli og Sílasi undan strax um nóttina til Beróea. Þegar þar var komid, gengu þeir inní Samkunduhús Gydínga, 11. hverjir betur vóru sinnadir, enn þeir í Tessaloníku, svo þeir medtóku lærdóminn med fúsu gedi og ransøkudu hvørn dag Ritníngarnar, hvørt svo væri (sem þeim var kénnt); 12. margir urdu því trúadir af þeim og ekki allfátt af grískum konum í betri rød, samt karlmønnum. 13. En er Júdarnir í Tessaloníku fréttu, ad í Beróea væri einnig bodad Guds ord af Páli, komu þeir og uppæstu lýdinn einninn þar. 14. Brædurnir skutu því Páli strax undan, ad hann færi út med sjó, en Sílas og Tímóteus urdu þar eptir. 15. Leidsøgu-menn Páls fylgdu honum allt til Atenuborgar og báru aptur þau skilabod til Sílasar og Tímóteusar, ad þeir hid snarasta kæmu til hans. 16. Medan Páll beid þeirra í Atenuborg, gramdist honum hugur ad sjá hvílíkt afguda bæli sú borg var; 17. samt kéndi hann í Samkunduhúsinu, bædi Gydíngum og ødrum gudhræddum, líka hvern dag á torginu þeim, er þar var ad hitta; 18. en nokkrir epíkúrískir og stóískir Spekíngar gáfu sig í ordakast vid hann; nokkrir søgdu: hvad mun skraf-sinnur sá ætla sér? adrir søgdu: ókénda Gudi sýnist hann boda; af því Páll bodadi Jesúm og upprisuna. 19. Þeir leiddu hann nú upp á Areópagus a) og søgdu: megum vér fá ad vita hverr sá nýi Lærdómur er, sem þú fer med? 20. því eitthvad nýstárlegt flytur þú oss til eyrna, og oss fýsir ad vita hvad þetta er. 21. En øllum Atenu-mønnum, eins þeim, er dvøldu þar sem adkomandi, var um ekkert svo tídt, sem ad segja edur heyra eitthvad nýstárlegt. 22. Þegar Páll þanninn stód midt á Areópagus, mælti hann: Atenu menn! þad sje eg hvervetna, ad þér erud miklir trúmenn; 23. því þá eg gékk hér um og skygndist eptir ydar helgidómum, fann eg medal annars eitt Altari, hvar yfir skrifad stód: „Þeim ókunna Gudi". Þennan, er þér óvitandi dýrkid, boda eg ydur. 24. Sá Gud, sem gjørdi heiminn og allt hvad í honum er, hann, sem er Herra himins og jardar, býr ekki í musterum, sem med høndum eru gjørd, 25. ekki heldur verdur honum þjónad med manna-høndum, svo sem þyrfti hann nokkurs vid, þar hann sjálfur gefur øllu líf og andardrátt og sérhvad annad. 26. Hann lét, af einum ættstofni, allra manna kynþætti útkvíslast um gjørvalla jardarkrínglunа, og hann hefir fastsett ákvørdud tímabil og takmørk fyrir þjódanna bústadi, 27. svo þær skyldu leita Guds, ef ské mætti þær þreifudu á honum og

V. 19. a. Þetta var Løgberg Athenu manna, Páll var hér ekki leiddur fyrir dóm, heldur til þess hann skyldi betur heyrast.

fyndu hann, jafnvel þó hann sé nálægur hverjum einum af oss; 28. því í honum lifum, hrærumst og erum vér; eins og nokkur skáld ydar hafa sagt: vér erum hans ættar. 29. Fyrst vér erum nú Guds ættar, megum vér ekki hugsa ad Guddómurinn sé líkur gulli, silfri, edur steini, myndudu med hagleik af hugviti manna. 30. Ad sönnu hefir Gud sjed í gégnum fíngur vid vanvitskunnar tídir, en nú lætur hann øllum mønnum allstadar bjóda, ad þeir taki háttaskiptí; 31. því hann hefir fastsett dag, á hverjum hann ætlar ad dæma heims-bygdina med réttvísi, af manni, er hann hefir þar til kjørid, og gaf øllum fullvissu þar um, med því ad reisa hinn sama frá daudum. 32. En er þeir heyrdu nefnda upprisu framlidinna, gjørdu sumir gis ad, en adrir søgdu: vér viljum heyra þig ødru sinni tala um þetta. 33. Þannig komst Páll frá þeim. 34. Nokkrir menn, sem héldu sig til hans, urdu trúadir, medal þeirra var Díonysíus, einn af ædstu Dómherrunum, og kona nokkur, ad nafni Damaris og adrir, fleiri.

## 18. Kapítuli.

Páll kénnir í Korintuborg; Gydíngar standa ígégn honum, en Gud hughreystir hann; Gallíon vill ekki dæma hann; Páll kémur til Efesus og fleiri Stada; Apollós uppfrædist af Akvíla og fer til Akkeu.

1. Eptir þetta fór Páll úr Atenuborg og kom til Korintuborgar; 2. þar hitti hann Gydíng, ættadann frá Pontus, ad nafni Akvílas og konu hans Priskillu. Hann var nýlega kominn úr Italíu, því Kládíus Keisari hafdi skipad, ad allir Gydíngar skyldu víkja úr Róm. 3. Páll fór til þeirra og settist ad hjá þeim, því bádir høfdu sama handverk, nefnilega tjaldsmídi, og tók til vinnu, 4. en kénndi hvern helgan dag í samkundu-húsinu, og sannfærdi bædi Gydínga og Grikki. 5. En er Silas og Tímótheus komu frá Masedoníu, var Páll stødugt vid kénnínguna og vitnadi fyrir Gydíngum, ad Jesús væri Kristur. 6. En er þeir urdu uppvægir móti honum og smányrdtu hann, hristi hann duptid af klædum sínum, og sagdi: ydvart blód sé yfir ydar høfdi a), eg em saklaus; hér eptir fer eg til heidíngja. 7. Sídan fór hann þadan og kom í hús þess manns, er hét Júst us, sá dýrkadi Gud og átti hús áfast vid samkunduna. 8. En Krispus, Samkunduhøfdínginn, trúdi á Drottinn, og allt hans heimafólk; líka tóku margir Korintumenn trú, þeir ed heyrt høfdu lærdóminn og voru þar skírdir. 9. Eina nótt sagdi Drottinn í vitrun til Páls: óttast ekki, heldur tala og þeig ekki! 10. því eg em med þér, og enginn skal festa hønd á þér til ad gjøra þér íllt, því eg á margt fólk í þessari borg. 11. Hann héldt þar kyrru fyrir í þrjú missiri og kéndi þeim Guds ord.

12. Þegar Gallíon var Landstjórnari í Akkeu, tóku Gydíngar sig upp med einu samheldi, á móti Páli og drógu hann fyrir dómstólinn og søgdu: 13. þessi rædur mønnum til þeirrar Gudsdýrkunar, sem gagnstæd er løgmálinu. 14. Í því Páll ætladi ad gégna til, svaradi Gallíon Gydíngum: ef hér væri ad gjøra um óréttindi einhvør edur íllvirki, þá skyldi eg, Gydíngar! tilbærilega veita ykkur áheyrn; 15. en fyrst þad er þræta um lærdóm og nøfn b) og ydar egin løg, þá sjáid um þad sjálfir, því eg girnist ekki ad vera dómari yfir slíku; 16. og hann rak þá frá dómstólnum. 17. Allir þeir Grískir tóku þá Sóstenes, samkunduhúss høfd-

V. 6. *a.* Kénnid sjálfum ydur um ydar tøpun. V. 15. *b.* Nøfn, þ. e tignarnøfn, er Gydíngar héldu ad Jesú ekki bæri.

íngjann, og børdu hann fyrir dómstólnum, en
Gallíon skipti sér ekki af því.
18. Páll beid þar enn marga daga, sídan
kvaddi hann brædurna, og sigldi til Sýrlands,
ásamt Priskillu og Akvílas, þá hann var bú-
inn ad raka høfud sitt í Kenkrea, því hann
hafdi heitbundid sig. 19. Þar eptir fór hann
til Efesus, og skildi þau þar eptir, en gékk
sjálfur inn í samkunduhúsíd og taladi fyrir Gyd-
íngum; 20. bádu þeir hann ad tefja hjá sér
um hríd, en hann samsinnti því ekki, heldur
kvaddi þá og sagdi: 21. mér ber ad halda
hátídina, sem í hønd fer, í Jerúsalem, en eg
skal koma til ydar aptur, ef Gud vill. 22.
Svo fór hann frá Efesus og kom nidur til
Sesareu og þadan fór hann upp til Jerú-
salem, og þá hann hafdi kvadt søfnudinn,
fór hann nidur til Antiokkíu. 23. Hér dvaldi
hann nokkra stund, en fór svo um gjørvalt
Galataland og Frygíu og styrkti alla Lærisveinana.
24. En til Efesus kom Gydíngur nokkurr,
Appollós ad nafni, ættadur frá Alexandríu,
tølugur madur og vel ad sér í Ritníngunum,
25. hann hafdi fengid tilsøgn í lærdómi Drott-
ins og þared hann hafdi glóandi andagift,
taladi hann og kéndi nákvæmlega um Jesúm,
þekti a) þó ekki nema skírn Jóhannesar. 26.
Þessi tók skøruglega ad prédika í samkundu-
húsinu og er Akvílas og Priskilla heyrdu þad,
tóku þau hann ad sér og útlistudu ítarlega
fyrir honum Guds veg b). 27. En er hann
fýsti ad fara yfir um til Akkeu, hvøttu bræd-
urnir c) hann til þess, og skrifudu Lærisvein-
unum d) ad taka honum vel. Þá hann var
þángad kominn, vard hann þeim trúudu til
stórrar nytsemi fyrir (Guds nád); 28. því
skøruglega hrakti hann Gydínga opinberlega í
orda vidskiptum, og sannadi klárlega af Ritn-
íngunum, ad Jesús væri Kristur.

## 19. Kapítuli.

Páll veitir nokkrum í Efesus Andans gáfur; kénnir þar í tvø ár, og gjørir furduverk. Særinga mønnum er misþyrmt af djøfulódum manni; margir snúa sér til kristni; þegar Páll ætlar til Grikklands, vekur Demetríus upphlaup.

1. Þad skédi medan Appollós var í Kor-
intu, ad Páll, eptir ferd sína um Asíu upp-
lønd, kom til Efesus, og hitti fyrir nokkra Læri-
sveina, sem hann sagdi vid: 2. hafid þér
medtekid heilagan Anda þá þér urdud trúadir?
þeir svørudu: nei, vid høfum ekki svo mikid
sem heyrt, ad heilagur Andi sé til. 3. Hann
spurdi þá: uppá hvad erud þér þá skírdir?
þeir søgdu: uppá Jóhannesar skírn e). 4.
Páll ansadi: ad vísu skírdi Jóhannes med
idrunar skírn f), því hann sagdi fólkinu ad
trúa á þann, sem eptir sig kjæmi, þad er á
Jesúm Krist. 5. Þegar þeir heyrdu þad,
létu þeir sig skíra í nafni Drottins Jesú. 6.
Og sem Páll hafdi lagt hendur yfir þá, kom
yfir þá heilagur Andi, svo þeir tøludu túngum
og spádu. 7. Alls voru þessir hérumbil tólf
kallmenn ad tølu. 8. Nú gékk hann í sam-
kundu-húsíd og kéndi einardlega um þrjá mán-
udi og leiddi til sannfæríngar um þad, er vid-
vék Guds ríki. 9. En er nokkrir settu í sig
þverúd og létu ekki skipast, heldur hallmæltu
lærdóminum í fólksins áheyrn, hætti hann vid
þá, skildi Lærisveinana frá, og kéndi hvørn
dag, í skóla eins manns, er Týrannus hét.
10. Þessu fór fram tvø ár, svo allir, sem

---

V. 18. 4 Mós. 6, 9—21. V. 25 *a*. Hann þekti svo mikid af lærdómi Jesú, sem Jóhannes Skírari gat gefid upplýsing um, sjá Lúk. 3, 2—18. 7, 28 Skgr. V. 26. *b*. Krists lærdóm. 27 *c*. Þeir kristnu í Efesus. *d*. Þeim kristnu í Akkealandi. V. 3. *e*. Hlýdni vid hans lærdóm, sjá Matt. 3, 3. 5. 6. 10. 11. V. 4. *f*. Sem skuldbatt til lífsu-adarbóta, Lúk. 3, 10—14.

bjuggu í Asíu, bædi Gydíngar og Grikkjar, heyrdu lærdóm Drottins; 11. einninn gjørdi Gud ó-almenn kraptaverk fyrir hendur Páls, 12. svo ad jafnvel þegar sveita-dúkar sem Páll bar næst sér, og fyriskirtur a) voru lagdar yfir sjúka, þá yfirgáfu sjúkdómarnir þá, og illir andar gengu útaf þeim.

13. Þá tóku nokkrir umhlaupandi særínga menn Gydínga kyns sér fyrir, ad nefna yfir þeim, er þjádust af íllum øndum, nafn Herrans Jesú, segjandi: eg særi ykkur vid Jesúm, hvørn Páll prédikar. 14. Medal þeirra, er þetta gjørdu, voru sjø synir Skévu, eins Gydínga høfud-prests. 15. Þá svaradi hinn vondi andi: Jesúm þekki eg, og vid Pál kannast eg, en hvørjir erud þér? 16. Og madurinn, sem sá vondi andi var í, flaug á þá, vard þeim yfirsterkari og lét þá finna til afl síns, svo ad þeir flúdu naktir og særdir úr húsinu. 17. Þetta vard kunnugt øllum Gydíngum og Grikkjum, er bjuggu í Efesus, og ótta sló yfir alla, og nafn Drottins Jesú mikladist. 18. Margir sem vid trú høfdu tekid, komu nú, játudust og søgdu frá athæfi b) sínu. 19. Líka komu margir, er farid høfdu med kukl, med bækur, og brendu þær øllum ásjáandi. Verd þeirra var reiknad saman og var upphæd þess fimtíu þúsund silfur penínga r. 20. Ord Drottins vóx þanninn og efldist krøptuglega.

21. Eptir ad þetta var áorkad, setti Páll sér í huga ad ferdast um Masedoníu og Akkeu til Jerúsalem og sagdi: þegar eg er búinn ad vera þar, ber mér ad sjá Róm. 22. Nú sendi hann tvo, sem voru honum vid hønd, Tímóteus og Erastus, til Masedoníu, en dvaldi sjálfur um tíma í Asíu. 23. Um þad leiti reis ekki allítill órói út af lærdóminum; 24. því silfursmidur nokkurr, ad nafni Demetríus, sem bjó til silfurmusteri c) Díønu, afladi ødrum smidum stórkostlegs ábata. 25. Þessa kalladi hann saman, og adra, er unnu ad þesshattar, og sagdi: gódir menn! þér vitid ad á þessu verki stendur okkar velmegan; 26. einninn sjáid þér og heyrid, ad ekki einúngis í Efesus borg heldur nær um gjørvalla Asíu, hefir Páll þessi talid trú um og fengid á sitt mál fjølda fólks, med því ad segja, ad þad séu ekki Gudir, sem med høndum eru smídadir. 27. Nú horfir þetta ekki einúngis idn vorri til smánar, heldur einnig ad musteri hinnar miklu Díønu verdi einkis virdt, já, jafnvel ad tign hennar gjøreydist, hvørja øll Asía og jardarkrínglan dýrkar. 28. Þá þeir heyrdu þetta, urdu þeir afarreidir, æptu upp og søgdu: mikil er Díana Efesus manna! 29. Øll borgin vard nú uppvæg og allir æddu samhuga til sjónarplátsins, hrifu med sér Masedónana, Kajus og Aristarkus, førunauta Páls. 30. En er Páll vildi gánga fram í mannþraungina, leyfdu Lærisveinarnir honum þad ekki; 31. einninn sendu nokkrir Austurálfu høfdíngjar d), þeir ed voru honum vinveittir, honum bod, og rédu honum frá ad koma á sjónarplátsid. 32. Adrir hrópudu nú svo, en adrir ødruvísi, því safnadurinn var uppvægur, og færstir vissu, hvørs vegna þeir voru þar saman komnir. 33. Nú var togadur fram úr mannþraunginni Alexander, hvørjum Gydíngar ýttu fram; hann bandadi med hendinni og vildi forsvara sig fyrir fólkinu. 34. En er þeir vissu ad hann var Gydíngur, æptu allir upp einum munni og hrópudu nærri tvær stund-

V. 12. *a.* Þ. e. þvilikar, sem handverksmenn hafa framan á sér til hlifdar. Páll var tjaldasmidur. V. 18. *b.* Þ. e. frá hjátrú sinni, ad þeir høfdu farid til særingamanna og annara kunnáttu manna. V. 24. *c.* Þ. e. litil silfurhús, gjørd eptir godahofinu i Efesus. V. 31. *d.* Austurálfu-høfdingjar (Asiarchei) kølludust þeir sem høfdu umsjón yfir borgum og kostudu gledileiki þá sem haldnir voru afgudunum og keisurunum til heidurs.

ir: mikil er hún Díana í Efesus! 35. Loksins gat Stadarskrifarinn stødvad fólkid og mælti: Efesusmenn! hvørr er sá, er ekki viti ad Efesusborg geymir musteri hinnar miklu Díønu og þad frá himni fallna bílæti. 36. Nú, þar þetta er ómótmælanlegt, svo ber ydur ad vera stilltum og ekki hrapa ad neinu. 37. Þér hafid dregid þessa menn híngad, sem hvørki hafa rænt hofin, né lastad Gydju ydar. 38. Hafi Demetríus og smidirnir, lagsmenn hans, kjærumál móti nokkrum, þá eru þínghøld ad fá og Landstjórnarar til, egist þeir løg vid; 39. en sé þar annad ágreiníngs efni ykkar á milli, sem þér hafid innbyrdis, svo má gjøra þar um á løglegri samkomu. 40. En oss er búin hætta ad verda klagadir fyrir þessa dags óróa, þar engin orsøk verdur borin fyrir, hvar med vér kunnum ad afsaka slíkt upphlaup. Ad svo mæltu lét hann mannsøfnudinn skiljast ad.

## 20. Kapítuli.

Páll fer til Masedoníu og Grikklands og þadan aptur til Tróas, hvar hann kénnir og endurlífgar Evtykus; heldur áfram til Assus og Miletus; hér kvedur hann Oldúngana í Efesus med hrærdu hjarta.

1. Eptir ad þessi órói var stødvadur, kalladi Páll Lærisveinana saman, kvaddi þá og fór af stad til Masedoníu. 2. Og er hann hafdi farid um þau landspláts og med mørgum ordum áminnt brædurna, kom hann til Grikklands. 3. Þar dvaldi hann þrjá mánudi; en er honum vóru veitt umsátur af Gydíngum, þá hann ætladi til Sýrlands, vard hann þess sinnis ad snúa aptur um Masedoníu. 4. Fylgdu honum þá á veg allt til Asíu, Sópater frá Beróea, Aristarkus og Sekúndus frá Tessaloníku, Gajus frá Derbe og Tímóteus; en af Asturálfu mønnum Tykíkus og Trófímus. 5. Þessir fóru á undan oss og bidu vor í Tróas, 6. En vér sigldum eptir daga hinna ósýrdu braudanna frá Filippí, og hittum þá á fimta degi í Tróas, hvar vér tøfdum sjø daga. 7. En á fyrsta degi vikunnar, þá vér vórum samankomnir til ad brjóta braudid a), héldt Páll rædu, því hann ætladi ad ferdast morguninn eptir og teygdi ræduna til midnættis. 8. Samkoman var á loptsal, hvar mørg ljós brunnu; 9. en í glugganum sat eitt úngmenni ad nafni Evtykus, á hann féll þúngur svefn, þá Páll ræddi svo leingi, og yfirkominn af svefninum datt hann ofan úr þridja lopti nidur á jafnsléttu, og var tekinn upp andvana. 10. Páll gékk þá ofan, lagdist nidur ad honum, umfadmadi hann, og sagdi: gjørid engann hávada! 11. hann er med lífi; sté sídan upp aptur, braut braudid og neytti, taladi vid þá lengi, allt þar til dagur ljómadi og fór svo sinn veg; 12. en þeir fóru burt med sveininn lifanda, og urdu næsta gladir. 13. Vér stigum nú á skip og fórum á undan til Assus, hvar Páll átti ad takast á skip, því svo hafdi hann rád fyrir gjørt, en ætladi ad fara sjálfur þángad fótgángandi. 14. Þá fundum vorum hafdi borid saman í Assus og vér høfdum tekid vid honum, komum vid til Mitylene. 15. Þadan sigldum vér og komumst annars dags gagnvart Kíos. Daginn eptir løgdum vér ad Samus, og stöldrudum vid í Trógillíon, og komum næsta dag til Míletus. 16. Páll ætladi ad sigla framhjá Efesús, svo hann tefdi sem skémst í Asíu, því hann flýtti sér, svo ad hann, ef møgulegt yrdi, gjæti verid á Hvítasunnu hátídinni í Jerúsalem.

17. Frá Míletus sendi hann til Efesus,

V. 7. *a.* Þ. e. ad halda kjærleiksmáltid, sem í enni fyrstu kristni fylgdi med kvøldmáltidar nautninni, 1 Kor. 11, 23 — 26.

ad kalla á Öldúnga safnadarins; 18. og sem þeir voru til hans komnir, ávarpadi hann þá þannig: þér vitid hvørnig eg, einlægt frá þeim fyrsta degi eg kom í Asíu, hefi hagad mér medal ydar, 19. í erindum Drottins, án yfirgirndar og stórlætis, opt med tárum og í vandrædum, sem Gydínganna vélrædi hafa bakad mér; 20. hvørsu eg hefi ekkért undanfellt, þad ydur væri til nytsemdar, heldur birt þad og ként, bædi opinberlega og í heimahúsum, 21. áminnandi svo vel Gydínga sem Grikki, ad snúa sér til Guds og til trúarinnar á Drottinn vorn Jesúm Krist; 22. og sjáid! nú em eg bundinn í anda a) ad fara upp til Jerúsalem, óviss um, hvad þar muni mæta mér, 23. nema hvad heilagur Andi í sérhvørri borg birtir mér og segir mér, ad fjøtur og harmkvæli bídi mín. 24. En eg set þad ekkért fyrir mig, met og ekki dýrt líf mitt, svo ad eg med gledi fullendi mitt skeid og embætti, sem eg hefi tekid vid af Herranum Jesú, ad auglýsa hátídlega fagnadar bodskap gudlegrar nádar. 25. Og takid nú eptir! eg veit ad enginn af ydur øllum, medal hvørra eg hefi gengid og ként um Guds ríki, muni framar sjá mitt auglit. 26. Því vitna eg nú fyrir ydur í dag, ad eg em hreinn af blódi b) allra; 27. því eg hefi ekki hlíft vid ad opinbera ydur allt Guds rád. 28. Hafid nú gát á sjálfum ydur og á allri hjørdinni, yfir hvørja heilagur Andi setti ydur tilsjónar menn, ad annast søfnud Drottins, hvørn hann útvegad hefir med sjálfs síns blódi; 29. því þetta veit eg, ad eptir burtfør míná munu grimmir vargar smeygja sér inn á milli ydar, þeir ed ekki munu þyrma hjørdinni; 30. og medal sjálfra ydar munu rísa upp menn, og fara med rángsnúna lærdóma, til ad leida Lærisveinana afvega med sér. 31. Vakid þess vegna og verid þess minnugir, ad eg hefi í þrjú ár, nótt og dag, ekki aflátid, med grátandi tárum, ad áminna hvørn og einn. 32. Og nú fel eg ydur, brædur! Gudi og ordi hans nádar, hvørt máttugt er enn betur ad efla ydur og veita ydur arftøku medal allra helgadra. 33. Einkis silfur edur gull, edur klædi hefi eg girnst. 34. Sjálfir vitid þér, ad hendur þessar hafa unnid fyrir minum naudþurftum og þeirra, sem med mér voru. 35. Í øllu sýnda eg ydur, ad oss birjadi þannig ad vinna, og adstoda hjálparþurfendur, og minnast orda Drottins Jesú, því hann sagdi: „sælla er ad géfa, en ad þyggja“ 36. Ad svo mæltu féll hann á kné og badst fyrir, ásamt þeim øllum, 37. og þeir grétu allir hástøfum, løgdu hendur um háls Páli og kystu hann, 38. mest sorgbitnir af því ordi, er hann hafdi sagt, ad þeir aldrei framar mundu sjá hans auglit; og þeir fylgdu honum til skips.

## 21. Kapítuli.

*Páll kémur til Týrus, Tólemais og Sesareu, hvar dætur Filippusar spá, og Agapus fyrirsegir Páls fángélsi. Páli er tekid vel í Jerúsalem; hann segir frá framkvæmdum sínum; honum er rádid, sökum Gydínga, ad láta hreinsa sig í musterinu, hvar hann er gripinn; yfirmadur kastalans frelsar hann og leyfir honum ad forsvara sig.*

1. Eptir ad vér høfdum slitid oss frá þeim og vorum komnir í rúmsjó, sigldum vér beinleidis til Kós, og næsta dag til Ródus, og þadan til Patara. 2. Þar fundum vér skip, er var ferdbúid til Føniséu, stigum á þad og sigldum burt. 3. En sem vér fengum landsjón af Kýpur, létum vér hana á bakborda og sigldum svo til Sýrlands og tókum høfn í Týrus, hvar skipid átti ad leggja upp farminn. 4. Þar fundum vér Lærisveinana og

V. 22. *a.* Þ. e. knúdur af Guds Anda. V. 26, *b.* Ofsorum. V. 28. Tit. 2, 14.

dvøldum hjá þeim sjø daga. Þeir søgdu Páli
af andagift, ad hann ekki skyldi fara upp til
Jerúsalem. 5. Samt fórum vér ad þessum
sjø døgum lidnum á stad, og fylgdu þeir oss
allir, ásamt konum og børnum, út fyrir stad=
inn; þar féllum vér á kné í fjørunni og bád=
umst fyrir; 6. og eptir ad vér høfdum kvadt
hvørjir adra, stigum vér á skip. 7. Þeir
snéru heim til sín, en vér endudum síglíng=
una, þá vér fórum frá Týrus og komum til
Tólemais a), heilsudum brædrunum og tøfd=
um hjá þeim einn dag. 8. Daginn eptir fór=
um vær á burt og komum til Sesareu, þar
gengum vér inn í hús Filippusar Gudspjall=
ara b), sem var einn af þeim sjø, og settumst
ad hjá honum. 9. Hann átti fjórar ógiptar
dætur, er spádu; 10. og sem vér dvøldum þar
ekki allfáa daga, kom spámadur nokkur ofan
frá Júdeu, Agapus ad nafni; 11. hann kom
til vor, tók upp linda Páls, batt hendur sínar
og fætur og mælti: svo segir Andinn sá hinn
heilagi: þann mann, er þetta belti á, munu
Gydíngar þannig binda í Jerúsalem og ofur=
selja í heidínga hendur, 12. Þegar vér heyrd=
um slíkt, bádum vér og þeir, sem í borginni
voru, Pál, ad fara ekki upp til Jerúsalem;
en hann svaradi: 13. hví grátid þér og hrellid
huga minn? eg em reidubúinn ekki einúngis ad
láta mig binda, heldur og ad deya í Jerúsalem,
søkum nafns Drottins Jesú. 14. Þar hann
ekki vildi fallast á ráð vort, þøgnudum vér og
søgdum: verdi Drottins vilji!

15. Þegar allt var nú tilbúid til ferdarinn=
ar fórum vér upp til Jerúsalem. 16. Nokkr=
ir af Lærisveinunum frá Sesareu fóru med og
fylgdu oss til Mnasons frá Kýpur, sem var
gamall Lærisveinn; hjá honum skyldum vér
gista. 17. Þá vér komum til Jerúsalem, tóku
brædurnir oss feginsamlega, 18. og næsta dag
gékk Páll med oss til Jakobs, hvar allir Öld=
úngarnir vóru samankomnir. 19. Eptir ad
hann hafdi heilsad þeim, innti hann þeim skil=
merkilega sérhvad eina, sem Gud hafdi fram=
kvæmt fyrir hans þjónustu, medal heidinna
þjóda. 20. Vid þessar fregnir vegsømudu
þeir Drottinn, og søgdu vid hann: þú sjer,
bródir! hvørsu margar þúsundir Gydínga hafa
trú tekid. Allir þeir eru vandir ad því ad løg=
málid sé haldid, 21. en þeim er sagt um þig,
ad þú kénnir øllum Gydíngum, er búa medal
heidíngja, fráfall frá Móse c) med þeim um=
mælum, ad þeir egi hvørki ad umskéra børn
sín, né fylgja hans setníngum. 22. Hvad er
hér vid ad gjøra? vafalaust hlýtur almenníng=
ur ad koma saman, því menn munu heyra ad
þú sért kominn. 23. Gjør nú þad, sem vér
segjum þér! hjá oss eru fjórir menn, sem bundn=
ir eru heiti; 24. tak þá til þín, hreinsa þig
med þeim og kosta uppá þá, ad þeir fái rak=
ad høfud sín d), þá mega allir sjá ad ekkért er
til í því, sem um þig er talad, heldur ad þú
sjálfur haldir løgmálid. 25. En hvad heid=
íngjana áhrærir, sem vid trú hafa tekid, þá er=
um vér búnir ad géfa út bréf og høfum úrskurd=
ad, ad þeir þurfi ekkért slíkt ad halda, utan
sneida hjá skurdgóda=fórn og blódi og køfnudu
og frillulífi. 26. Þá tók Páll mennina til sín,
og daginn eptir, þá hann hafdi hreinsad sig,
gékk hann med þeim í musterid og lýsti því e),
ad hann ætladi ad útenda hreinsunar dagana,
þángad til hvørs eins þeirra fórn væri fram=
borin.

V. 7. *a.* Tólemais, litil borg og høfn sem ádur tilheyrdi Asers ættkvísl, en þá var bygd af heidnum mønnum. V. 8. *b.* Sbr. 8, 5. ff. 6, 3. 6. V. 21. *c.* Páll hafdi einúngis kent, ad umskurn o. s. frv. væri ekkért høfudatridi til ad þóknast Gudi, heldur hlýdni vid Guds bod, (1 Kor. 7, 18—19), en Gydingar bættu því vid, ad hann bannadi hlýdni vid Mósis løg, K. 18, 13. V. 22. Þ. e. kristnir í Jerúsalem. V. 24. *d.* Leyst heit sin, 4 Mós. 6, 17. 18. V. 25. Sjá 15, 20. V. 26. *e.* Nl. fyrir prestunum.

27. En undir það þeir sjø dagar voru að
enda, þá Júdar frá Asíu sáu Páli musterinu, æstu
þeir allan lýðinn upp og løgðu á hann hendur
og hrópuðu: 28. góðir Ísraelsmenn! hjálpið!
hér er maðurinn, sem allstaðar er að kénna øllum,
í móti þjóð, løgmáli og stað þessum. Þar
ofaná hefir hann innleidt Grikki í Musterið og
saurgað þenna heilaga stað. 29. Þeir høfðu
sjeð áður Trófímus frá Efesus með honum í
borginni og hugsuðu, að Páll hefði leidt hann
í musterið. 30. Øll borgin varð nú uppvæg, og
múgurinn flykktist saman, greip Pál og dró hann
út úr musterinu, og strax var dyrunum læst. 31.
En í því þeir leitast við að lífláta hann, barst
sú saga upp til þúshundraðs høfðíngja her-
flokksins a), að øll Jerúsalem væri í uppnámi.
32. Hann tók þá í snarræði stríðsfólk og hundr-
aðshøfðíngja og hljóp niður til þeirra; en
þegar hinir sáu þúshundraðs-høfðíngjann og
stríðsmennina, hættu þeir að lemja Pál. 33.
Þúshundraðs-høfðínginn kom nú til, tók Pál
og skipaði að binda hann með tveimur viðjum,
spurði svo, hvørr hann væri og hvað hann
hefði aðhafst; 34. en sitt kallaði hvørr úr
mannfjøldanum, og er hann gat ekkért áreið-
anlegt uppgøtvað, søkum óróans, bauð hann að
leiða hann í herbúðirnar b). 35. Þá komið
var að trøppunum, hlutu stríðsmennirnir að
bera Pál, søkum áfergju múgans; 36. því þorri
fólksins flykktist með og hrópaði: lát hann ekki
lifa! 37. Rétt í því Páll skyldi innlátast í
herbúðirnar, sagði hann við þúshundraðs-høfð-
íngjann: leyfist mér að tala nokkur orð við þig?
hann ansaði: kanntú Grísku? 38. ertú ekki sá
egyptski maður, sem fyrir skemmstu vakt-
ir styrjøld og færðir útá eyðimørk fjøgur þús-
und flugumenn? 39. Páll svaraði: eg em
Gyðíngur, ættaður frá Tarsus og borgari þessa
nafnkénnda staðar í Silisíu: eg bið því, leyf
mér að tala til fólksins! 40. Að því leyfi
fengnu nam Páll staðar á trøppunum og band-
aði hendinni til fólksins, og er gott hljóð fékkst,
talaði hann til þeirra á hebreska túngu og sagði:

## 22. Kapítuli.

*Páll segir frá, hvørninn hann snérist til kristni og fékk kall að kénna heiðnum þjóðum; Gyðínga óhljóð móti honum; Herstjórinn ætlar að láta húðstrýkja hann, en vogar ekki, þar eð Páll var rómverskur borgari; leiðir hann fyrir Ráðið.*

1. Góðir menn, bræður og feður! hlustið
nú á forsvar mitt fyrir yður! 2. En er þeir
heyrðu hann ávarpa sig á Hebresku, urðu þeir
enn hljóðari. 3. Eg em — sagði hann —
Gyðíngur fæddur í Tarsus í Silisíu, en upp-
alinn í þessari borg við fætur Gamalíels c),
mentaður í allri nákvæmni feðranna løg-
máls, og var vandlætari vegna Guðs,
eins og þér allir eruð enn í dag; 4. og
ofsókti þenna lærdóm d) fram í dauðann
batt menn og konur og afhendti í fángelsi,
5. hvar um æðsti-presturinn og allt Øldúnga-
Ráðið mun bera mér vitni, því af þeim tók
eg og bréf til bræðranna og fór til Damaskus
í þeim tilgángi að flytja þá, er þar væru,
bundna til Jerúsalem, svo þeim yrði hegnt.
6. Þegar eg var á þeirri ferð og nálgaðist
Damaskus, bar svo til, nær miðjum degi, að
um mig leiptraði skyndilega ljós mikið af
himni. 7. Eg féll til jarðar og heyrði raust,
er sagði til mín: Sál! Sál! því ofsækir þú
mig? 8. eg svaraði: hverr ertú? Herra! hann
sagði til mín: eg em Jesús af Nasaret, hvern
þú ofsækir. 9. Mennirnir, sem með mér voru,

V. 31. *a.* Þ. e. þess Rómverska setu-liðs í Jerúsalem. V. 34. *b.* Þar sem þeir Rómversku stríðsmenn høfðu sitt aðsetur í Kastalanum Antonia, sem Heródes mikli lét byggja. V. 3. *c.* Sjá 5, 34. Þ. e: var Lærisveinn hans. V. 4. *d.* Þ. e. Krists lærdóm, 7, 58. 9, 1. 2.

sáu ljósid og urdu felmts-fullir, en raust þess,
er vid mig taladi, heyrdu þeir ekki. 10. Þá
sagda eg: Herra! hvad skal eg gjøra? Drott-
inn svaradi mér: stattú upp og gakk til Da-
maskus, þar verdur þér kunngjørt allt, sem
þér er ætlad ad gjøra. 11. En af því of-
birta ljóssins hafdi gjørt mig sjónlausan,
handleiddu samferda-mennirnir mig, svo eg
komst til Damaskus. 12. Þar var einn gud-
rækinn madur eptir løgmálinu, Ananías ad
nafni, vel-þokkadur af øllum Gydíngum, er
þar bjuggu; 13. hann kom til mín, stód yfir
mér og sagdi: Sál, bródir! fádú aptur sjón-
ina! og samstundis leit eg upp á hann. 14.
Hann sagdi þá: Gud fedra vorra hefir fyrir-
hugad þér ad þekkja sinn vilja og ad sjá hinn
Réttláta og ad heyra raust af hans munni;
15. því þú átt ad verda hans vottur til allra
manna, um þad þú hefir sjed og heyrt og
hvad hikar þú nú? 16. stattú upp, lát skíra
þig og afþvo syndir þínar og ákalla hans nafn.
17. Þad skédi og, eptir ad eg hafdi snúid
aptur til Jerúsalem og badst fyrir í Muster-
inu, ad eg vard frá mér numinn 18. og sá
hann sjálfan talanda vid mig: flýt þér og far
sem snarast burt úr Jerúsalem, þvíad ekki munu
þeir medtaka þinn vitnisburd um mig. 19. Þá
svaradi eg: Herra! þeir vita sjálfir, ad eg
kastadi í fángelsi og húdfletti í samkundunum
þá, sem trúdu á þig, 20. og þegar blódi
Stephans, vitnis þíns, var úthellt, stód eg
sjálfur hjá, samþykti því og geymdi føt þeirra,
sem slóu hann í hel. 21. En hann sagdi til
mín: fardú! því eg vil senda þig lánga leid
til heidíngja.

22. Allt ad þessu ordi hlýddu þeir á, en
nú hófu þeir upp raust sína og søgdu: burt
med þvílíkan mann af jørdinni! því þad hæfir
ekki hann lifi. 23. Nú sem þeir hrópudu og
fleygdu klædum sínum og jusu mold í lopt upp,
24, skipadi þúshundrads-høfdínginn ad leida
hann inn í herbúdirnar og med svipum ad
kúga hann til sagna, svo hann fengi ad vita,
fyrir hverja søk þeir hrópudu svo gégn honum.
25. Þegar þeir fóru þá ad strengja hann
med taugum, segir Páll vid hundrads-høfd-
íngjann, er hjá stód: er ydur leyft ad húd-
strýkja rómverskan mann, og þad ódæmdan?
26. En sem Hundrads-høfdínginn heyrdi
þad, gékk hann til þúshundrads-høfdíngjans,
innti honum frá og sagdi; hvad ætlardú ad
gjøra? madurinn er rómverskur. 27. Þús-
hundrads-høfdínginn kom þá og taladi til
Páls: seg mér, ertú madur rómverskur? hann
ansadi: já! 28. þúshundradshøfdínginn svaradi:
fyrir ærid fé mátti eg kaupa þenna borgara-
rétt. Hinn gégndi til: en eg em svo fæddur.
29. Jafnskjótt hvurfu þeir frá, er áttu ad
kúga hann til sagna og þúshundrads-høfdíng-
inn vard hræddur, þá hann vard þess vís,
ad hann var Rómverskur, af því hann hafdi
látid binda hann.

30. Daginn eptir vildi hann vita med vissu,
hvad Gydíngar hefdu ad ákæra Pál um,
leysti hann, baud ad høfudprestarnir og allt
rádid skyldi koma saman, og lét leida Pál
nidur fyri þá.

## 23. Kapítuli.

Páll vitnar um sína gódu samvitsku, en fær kinnhest; talar um upprisuna, út af hvorju Gydíngar verda sundurþykkir; Herstjórinn setur hann í kastalann; Gud hughreystir hann; Gydínga rádabrugg gégn Páli verdur uppvíst; herstjórinn sendir hann til landstjórnarans Felix í Sesareu.

1. Páll hvesti augun á rádid og mælti:
brædur! eg hefi hvervetna med gódri samvitsku
hegdad mér fyrir Gudi, allt til þessa dags,
2. ædsti presturinn Ananías skipadi þeim, er
hjá Páli stódu, ad ljósta hann á munninn.

3. Páll sagdi þá til hans: Gud mun ljósta þig,
þú kalkadi veggur! a) — þú situr hér sem dóm-
ari minn samkvæmt løgmálinu, en skipar móti
løgum ad slá mig. 4. Þá søgdu þeir, sem
hjá stódu: atyrdir þú ypparsta prest Guds?
5. ekki vissa eg, brædur! — svaradi Páll —
ad þad væri presta høfdínginn; því skrifad b)
er: þú skalt ekki illmæla høfdíngja þíns fólks. 6.
Þar ed Páll vissi, ad nokkrir voru Sadúsear,
en nokkrir Farisear, þá sagdi hann hátt í rád-
inu: gódir menn og brædur! eg em Fariseari
og Fariseara sonur. 7. Fyrir vonina c) og
upprisu daudra løgsækist eg. Ad svo mæltu
vard sundurþykki milli Faríseanna og Sadúse-
anna og þíngheimurinn sundradist; 8. því Sa-
dúsear segja ekki sé til upprisa framlidinna, né
Engill, né andi, en Farísearnir vidurkénna
hvørttveggja. 9. Nú vard hávadi mikill; þeir
skriftlærdu af Faríseanna flokki gáfu sig fram,
færdu mál sitt med kappi og søgdu: ekkért íllt
finnum vér á þessum manni, þó hann beri
fram, ad andi hafi talad vid sig edur Engill.

10. En er sundurlyndid vard svo mikid, ad
þúshundradshøfdínginn óttadist, ad þeir mundu
sundurslíta Pál, skipadi hann herlidinu ad fara
nidur, til ad hrífa hann frá þeim og flytja
í herbúdirnar. 11. Nóttina eptir stód Drott-
inn hjá honum og sagdi: vertu hughraustur!
því ad líka sem þú hefir vitnad um mig í Jerú-
salem, svo ber þér einninn ad vitna í Róm.

12. Þegar dagadi, gjørdu Gydíngar samtøk
og heitstreingdu med dýrasta eidi, ad þeir skyldu
ekki eta né drekka fyrr enn þeir hefdu Pál af
døgum rádid, 13. og vóru þeir yfir fjørutíu, sem
bundist høfdu í þenna svardaga. 14. Þessir
fóru á fund Presta-høfdíngjanna og Øldúng-
anna og søgdu: vér høfum hátídlega formælt
oss, ad neyta einkis, fyrri en vér høfum Pál
af lífi tekid. 15. Beidist nú ásamt med Ráds-
inu opinberlega af þúshundrads-høfdíngjanum,
ad hann láti leida Pál nidur fyrir ydur á morg-
un, þar ed þér ætlid greinilegar ad ransaka mál
hans; en vér erum reidubúnir ad ráda hann
af døgum, ádur en hann kémst til ydar. 16.
Þessa svikrædis vard áheyrsla systur-sonur
Páls, tók sig því til og fór í herbúdirnar, ad
segja Páli frá. 17. En Páll kalladi á einn
Hundrads-høfdíngjanna og mælti: fylg þessu
úngmenni til þúshundrads-høfdíngjans, því hann
hefir nokkud ad segja honum. 18. Hundrads-
høfdínginn tók úngmennid med sér, fór med
hann til þúshundrads-høfdíngjans og sagdi:
bandínginn Páll kalladi mig til sín, og bad
mig færa þér þenna svein, er hefdi nokkud ad
segja þér. 19. Þúshundrads-høfdínginn tók
þá sveininn vid hønd, vék honum afsídis og
spurdi: hvad er þad, sem þú hefir ad auglýsa
mér? 20. Hinn svaradi: Gydíngar hafa kom-
id sér saman um ad bidja þig ad færa Pál á
morgun fyrir Rádid, þar ed þeir ætli ítar-
legar ad yfirheyra hann; 21. en lát þú ekki
ad ordum þeirra, því af þeim sitja um Pál
yfir fjørutíu manns, hvørjir ed hafa svarid
sig um ad eta hvørki né drekka, fyrri en þeir
hafi fyrirkomid honum, og þeir eru þegar reidu-
búnir, og bída eptir bodum frá þér. 22. Þús-
hundrads-høfdínginn lét hinn únga mann fara,
en bannadi honum ad segja nokkrum manni frá,
ad hann hefdi opinberad sér þetta. 23. Kall-
adi svo á einhverja tvo hundrads-høfdíngja og
sagdi: búid út tvø hundrud strídsmenn, ad þeir fari
til Sesareu, sjøtíu riddara og tvøhundrud skotmenn,
eptir fyrstu eikt nætur; 24. hafid og til reidu farar-
skjóta handa Páli, svo hann komist heill til Land-
stjórnarans Felix. 25. Hann skrifadi og bréf þessa
innihalds: 26. „Kládíus Lysías heilsar enum
volduga Landstjórnara Felix. 27. Þenna mann
høfdu Gydíngar handtekid og ætludu ad líf-

V. 2. *a.* Þ. e. hræsnari. V. 5. *b*, Sjá 2 Mós. 22, 28. V. 6. *c.* vorrar þjódar, Lúk. 2, 32.

láta, en eg kom þá ad med strídsfólkinu og sleit hann af þeim, eptir ad eg vard þess vís, ad hann væri rómverskur. 28. En þar ed eg vildi vita, fyrir hvørja søk þeir ákjærdu hann, 29. leidda eg hann fyrir þeirra Rád, og fann þá, ad sakargiptin áhrærdi vafa-spursmál í þeirra løgum, en engan misverknad, sem dauda væri verdur edur banda. 30. En þegar eg fékk vísbendíng um ad Gydíngar sætu á svikrádum vid mann þenna, senda eg hann tafarlaust til þín, og hefi bodid hans ákløgurum ad framfæra fyrir þér þad, sem þeir hefdu á móti honum. Vegni þér vel!" 31. Strídsmennirnir tóku nú Pál, eins og þeim var sagt, og fluttu hann um nóttina til Antípatris a). 32. Daginn eptir létu þeir riddarlidid fara med honum, en snéru aptur til kastalans. 33. Hinir héldu áfram til Sesareu og afhendtu Landstjórnaranum Pál, ásamt bréfinu. 34. Felix las bréfid, spurdi Pál: úr hvørju landshøfdíngja dæmi hann væri? og fékk ad vita ad hann var frá Silisíu, 35. sagdi hann þá: eg skal yfirheyra þig, þegar ákjærendur þínir mæta; og hann skipadi ad vardveita hann í høll Heródesar.

## 24. Kapítuli.

Gydíngar áklaga Pál, en hann forsvarar sig kroptuglega; Felix skélfist vid rædu Páls, og skilur hann loks eptir í bøndum.

1. Fimm døgum sídar fór af stad ædsti Presturinn Ananías med Øldúngunum og mælskumanni nokkrum, er hét Tertúllus og þessir mættu fyrir Landshøfdíngjanum gégn Páli. 2. Þá búid var ad kalla hann fyrir, byrjadi Tertúllus sína ákjæru svo mælandi: 3. mikils fridar erum vér ordnir adnjótandi fyrir þína tilstilli og margar gódar tilskipanir á þessi þjód þinni umsjá ad þakka, voldugasti Felix! þetta játum vér á hvørjum stad og stundu þakklátlega; 4. en ad eg ónádi þig sem skémst, bid eg ad þú, eptir mildi þinni, viljir heyra oss stuttlega. 5. Þar ed vér høfum fundid þennna mann skadvænan, sem drepsótt, því hann vekur óróa medal allra Gydínga um alla vída verøld og er oddviti hins nadverska villu-flokks, 6. og hefir jafnvel rádist í ad vanhelga musterid; þá tókum vér hann fastan og vildum hafa dæmt hann samkvæmt vorum løgum; 7. en þúshundradshøfdínginn Lysías kom þá ad, og med miklu ofríki þreif hann úr vorum høndum, 8. og skipadi hans ákløgurum ad fara til þín, og af honum gétur b) þú, þegar þú spyr hann, fengid sjálfur ad vita allt þad, sem vér ákjærum hann um. 9. Gydíngarnir ákjærdu Pál líka med honum c), og søgdu þetta svo vera. 10. En Páll svaradi, þá landhøfdínginn hafdi bendt honum ad tala: þar eg veit, ad þú ímørg ár hefir verid dómari þessarar þjódar, mun eg þess øruggar forsvara mig; 11. med því þú gétur fengid ad vita, ad þad eru ekki meir enn tólf dagar sídan eg kom til Jerúsalem ad bidjast fyrir, 12. og þá hittu þeir mig, hvørki í orda þrætu vid nokkurn mann, né æsandi fólk til óspekta, hvørki í musterinu, né í samkundu-húsunum, né annarstadar í borginni, 13. og ekki heldur géta þeir sannad þad, sem þeir nú ákjæra mig um. 14. En þetta játa eg þér, ad eg þjóna Gudi fedra minna, samkvæmt þeirri trú, sem þeir kalla villudóm, og trúi øllu, sem skrifad stendur í løgmálinu og spámønnunum, 15. hafandi þá von til Guds, hvørja þeir og sjálfir hafa, ad framlidnir muni upprísa, bædi vondir menn og gódir. 16. Því æfi eg líka sjálfan mig í því ad hafa jafnan óflekkada samvitsku, bædi fyrir Gudi

V. 31. *a.* Antipatris bær, rúma 1½ þíngmannaleid frá Jerúsalem, á veiginum til Sesareu. Heródes mikli hafdi bygt þenna stad, og nefnt hann eptir fødur sínum. V. 8. *b.* Þ. e. af Páli sjálfum. V. 9. *c.* Honum, nl. Tertúllus.

og mønnum. 17. Eg kom eptir fleiri ára burtuveru a) med ølmusu gjafir handa þjóð minni. 18. Medan eg var ad þessu og var nýbúinn ad hreinsa mig í musterinu, hittu mig ekki med mannmergd né óróa 19. nokkrir Gydíngar frá Asíu, hvørjir ad hefdu átt mæta hjá þér, og ákjæra, ef nokkud hefdu haft mér á móti. 20. Edur segi þessir sjálfir til, hvad þeir hafi fundid saknæmt hjá mér, þegar eg stód fyrir rádinu, 21. utan þad sé þetta eina ord, er eg kvad upp med, þegar eg stód milli þeirra: eg løgsækist í dag af ydur, søkum upprisu framlidinna. 22. Felix skaut nú málinu á frest, uns hann þekkti gjørr þenna lærdóm og sagdi: þegar þúshundradshøfdínginn Lysías kémur, skal eg skéra úr máli ydar. 23. Og undir eins baud hann hundrads-høfdíngjanum ad vardveita Pál, en halda honum ekki bundnum og banna engum hans ad þjóna honum edur koma til hans.

24. Nokkrum døgum seinna kom Felix, med konu sinni Drúsillu, sem var Gydínga ættar, og lét sækja Pál, og heyrdi hann um trúna áhrærandi Krist. 25. En er Páll kom á tal um réttlæti, bindindi og tilvonandi dóm, skélfdist Felix og mælti: far burt ad sinni; þegar eg fæ tóm, mun eg láta kalla þig aptur. 26. Medfram vænti hann, ad Páll mundi géfa sér fé til ad losast, þess vegna lét hann og opt kalla á hann, og átti vid hann samrædur. 27. Ad lidnum tveim árum, kom Porsíus Festus í stad Felix til valda, og til ad sýna Gydíngum velvild, eptirskildi Felix Pál fjøtradann.

## 25. Kapítuli.

*Festus bodar Gydínga til Sesareu; en Páll skýtur máli sínu til Keisarans, og Festus úrskurdar, ad málid gángi þángad; Festus talar um Pál vid Agrippa Konúng, er sjálfur vill heyra hann.*

1. Þremur døgum eptir ad Festus hafdi tekid vid Sýslu sinni, fór hann frá Sesareu upp til Jerúsalem. 2. Þá mættu fyrir honum ædsti presturinn og helstu menn Gydínga, gégn Páli, gjørdu fér far um ad fá hann á sitt mál, 3. og beiddust þeirrar nádar, ad Festus léti senda hann til Jerúsalem; en þeir gjørdu honum umsátur og ætludu ad drepa hann á leidinni. 4. Festus svaradi, ad Páll væri í vardhaldi í Sesareu, en sjálfur ætladi hann brádum þángad: 5. Látid því — sagdi hann — duglega menn af ydar hálfu, fara þángad med mér, til ad ákjæra hann, sé nokkud saknæmt í hans fari. 6. En sem hann hafdi dvalid hjá þeim, mest átta edur tíu daga, snéri hann aptur til Sesareu, og daginn eptir settist hann á dómstólinn og skipadi ad leida Pál fram. 7 En er Páll var þar kominn, umkríngdu hann Gydíngarnir, sem nidur høfdu farid frá Jerúsalem, og báru uppá hann margar og þúngar sakargiptir, hvørjar þeir þó ekki gátu sannad, 8. því hann kom fyrir sig þeirri vørn, ad hann ekkért hefdi misbrotid, hverki móti løgum Gydínga, né musterinu, ekki heldur Keisaranum. 9. Þá spurdi Festus Pál, til ad þóknast Gydíngum; viltú — segir hann — fara upp til Jerúsalem, ad eg þar dæmi þetta mál þitt? 10. Páll svaradi: eg stend fyrir Keisarans dómi, þar á eg ad dæmast. Gydíngum hefi eg engan órétt gjørt, eins og þú gjørla veitst. 11. Þar fyrir, sé eg brotlegur, edur hafi framid nokkud dauda verdt, þá skora eg mig ekki undan lífláti; en ef ekkert er tilhæft í því, sem þessir skulda mig fyrir, svo á enginn med ad géfa þeim líf mitt. Eg skýt máli mínu til Keisarans. 12. Eptir ad Festus hafdi talad vid sitt rádaneyti, vard þetta hans

V. 17. a. Nefnil. til Jerúsalem.

atkvædi: „fyrir Keisarann hefir þú skotid máls efni þínu, til Keisarans skaltú fara".

13. Ad nokkrum døgum lidnum kom Agrippa Konúngur og Berníke til Sesareu, til ad segja Festus velkominn; 14. og þar þau dvøldu þar um hríd, innti Festus Konúnginum frá málefni Páls og sagdi: Felix hefir skilid eptir bandíngja nokkurn, 15. móti hverjum Prestahøfdíngjar og Öldúngar Gydínga mættu, þá eg var í Jerúsalem og æsktu dómsatkvædis yfir honum. 16. Eg svaradi þeim: ad þad væri ekki háttur Rómverja, ad ofurselja í dauda nokkurn mann ødrum í vil, fyrri en áklagendur og sá ákjærdi væru bádir nálægir, og þessi fengi tækifæri til forsvars, móti sakargiptinni. 17. En er þeir komu med mér híngad, gjørdi eg engan drátt, heldur settist í dómstólinn daginn eptir, og skipadi ad leida manninn fram. 18. Áklagendurnir, sem mættu gégn honum, báru nú enga þesshåttar søk fram, er eg hafdi ætlad, 19. heldur høfdu þeir einhver þrætuspursmál gégn honum um sjálfra þeirra átrúnad, og um einhvørn dáinn Jesús, hvørn Páll segir lifa. 20. Par eg nú vantreysti mér ad skéra úr þesskonar þrætu, leiddi eg í tal, hvørt Páll vildi fara upp til Jerúsalem og láta þar dæma í þessu máli. 21. En eptir því Páll æskti, ad hann geymdist til Keisarans úrskurdar, skipadi eg ad vardveita hann, uns eg sendi hann Keisaranum. 22. Agrippa sagdi þá vid Festus: mig girnir ad heyra sjálfur manninn. Hinn ansadi: á morgun skaltú heyra hann. 23. Daginn eptir kom Agrippa og Berníke, med miklu skrauti, og gengu ásamt þúshundrads-høfdíngjunum og enum ædstu mønnum Borgarinnar í dómhúsid; var svo Páll ad bodi Festusar framleiddur. 24. Pá mælti Festus: Agrippa Konúngur! og þér allir, sem med oss eru nærstaddir! þar sjáid þér þann mann, hvørn gjørvallur Gydínga múgur hefir ákjært fyrir mér, bædi í Jerúsalem og hér, og hástøfum sagt, ad ekki ætti leingur ad lifa. 25. Eg er kominn ad raun um, ad hann ekkért hefir athafst, þad dauda-straffi sæti, og þared hann sjálfur hefir skotid máli sínu til Keisarans, þá hefi eg ályktad, ad hann skyldi sendast þángad. 26. En med því eg hefi ekkért áreidanlegt ad skrifa Herranum um hann, þá hefi eg framleidt hann fyrir ydur, og einkum fyrir þig, Agrippa Konúngur! uppá þad ad eg, ad høldnu þessu ransaki, hefdi eitthvad ad skrifa; 27. því mér líst óskinsamlegt ad senda bandíngja, án þess sakargipt hans sé tilgreind.

## 26. Kapítuli.

Páll segir lífssøgu sína, frá því hann snérist til kristni; Festus og Agrippa vidurkénna sakleysi Páls.

1. Agrippa sagdi nú vid Pál: þér leyfist ad tala fyrir þig. Páll rétti þá út høndina og forsvaradi sig þannig: 2. heppinn tel eg mig, Agrippa Konúngur! ad mega í dag afsaka mig fyrir þér, áhrærandi allt hvad Gydíngar ásaka mig um; 3. helst af því þú ert kunnugur øllum Gydínga sidvenjum og vafaspursmálum, þess vegna bid eg þig þolinmódlega ad heyra mig. 4. Mitt líf og dagfar frá barnæsku, þar ed eg hefi frá ønduverdu alist upp hjá þjód minni í Jerúsalem, er øllum Gydíngum kunnugt, 5. því þeir hafa frá upphafi þekkt mig ad því (vildu þeir ad eins unna mér sannmælis), ad eg hefi sem Faríseari lifad eptir reglum strángasta flokks vorrar trúar a). 6. Og nú stend eg undir løgsókn, vegna vonar á því fyrirheiti, er Gud gaf fedrum vorum, 7. hvørt vorir tólf kynþættir med kappsamri þjónkun Guds, nótt og dag, vænta ad hreppa. Fyrir þessa von ákjærist eg, Agrippa

V. 5. a. Ml. Fariſea flokksins.

Konúngur! af Gydíngum. 8. Hvørninn gét-
ur þad álitist ótrúlegt hjá ydur, ad Gud uppveki
dauda? 9. Ad sønnu áleit eg þad sjálfur
skyldu mína, ad fyrirtaka margt gégn nafni
Jesú frá Nasaret; 10. Þad gjørda eg og í
Jerúsalem, því eg hneppti í myrkvastofur marga
kristna, eptir fenginni fullmakt frá prestahøfd-
ingjunum, þar til, og gaf mitt jákvædi til,
þegar þá skyldi lífláta, 11. og í øllum sam-
kunduhúsum lét eg þeim þráfinnis refsa, og
neyddi þá til ad tala illa um (Jesúm). Já,
svo frekt ædda eg gégn þeim, ad eg elti þá til
framandi borga. 12. Þegar eg þessa erindis
var á ferd til Damaskus, ad fengnum full-
komnum myndugleika frá hinum ædstu prestum,
13. sá eg, ó Konúngur! á veginum, um mid-
jan dag, ljós af himni, hvørju sólskini bjart-
ara, leiptra um mig og þá, sem mér voru
samferda. 14. Vér duttum þá allir til jard-
ar, og þá heyrda eg rødd, er vid mig taladi
og sagdi á Hebresku: Sál! Sál! hví ofsækir
þú mig? erfidt verdur þér ad spyrna móti
broddinum a), 15. Eg spurdi: hvørr ert þú?
Herra! hann svaradi: eg em Jesús, hvørn þú
ofsækir. 16. En rís þú upp og statt á þínar
fætur, því til þess vitradist eg þér, ad eg setti
þig til ad vera þjón og vott ad því þú sást,
og ad því, eg enn mun láta þig sjá. 17. Eg
skal hrífa þig frá fólki þínu og frá heidíng-
junum, 18. til hvørra eg nú senda þig, til
ad opna augu þeirra, svo þeir snúist frá
myrkri til ljóss, frá Satans valdi til Guds,
og ødlist fyrirgéfníngu syndanna, samt hlut-
deild med þeim, er helgadir eru fyrir trúna á
mig. 19. Þess vegna vilda eg ekki, Agrippa
Konúngur, þverskallast gégn slíkri himneskri op-
inberun, 20. heldur bodadi eg fyrst þeim í
Damaskus og sídan í Jerúsalem og um bygd-
arløg Gydíngalands, og heidíngjum, ad menn
skyldu taka sinna skipti og snúa sér til Guds
og vinna sambodin verk ydruninni. 21. Fyr-
ir þessara hluta skuld gripu Gydíngar mig í
musterinu, og leitudust vid, ad svipta mig lífi;
22. en fyrir Guds fulltíngi hefir mér audnast
ad standa heill allt til þessa dags, og vitna
bædi fyrir smáum og stórum, án þess eg kénni
annad enn þad, sem spámennirnir og Móses
høfdu sagt ad ské mundi: 23. ad Kristur
skyldi pínast, ad hann skyldi verda sá fyrsti,
er frá daudum risi, og ad hann skyldi kynna
Gydínga lýd og heidnum þjódum ljósid b).

24. Adur enn Páll hafdi endad þetta for-
svar sitt, kalladi Festus hástøfum: galinn ertú
ordinn, Páll! sá mikli lærdómur ærir þig.
25. Hann svaradi: ekki em eg galinn, voldugi
Festus! heldur framfæri eg sønn og gjætileg
ord, 26. Konúngurinn skilur þetta, og vid
hann tala eg því einardlega, af því eg þykist vita
ad honum sé ekkért af þessu hulid, því þad er
ekki í afkyma skéd c). 27. Trúir þú, Agrippa
Konúngur! Spámønnunum? eg veit þú trúir
þeim. 28. En Agrippa ansadi Páli hér til:
innan skamms fær þú mig til ad verda kristinn.
29. Páll svaradi: þess bid eg Gud, hvørt
þess er leingur edur skémur ad bída, ad ekki
einúngis þú, heldur og allir, sem til mín
heyra í dag, verdi þvílíkir sem eg, ad und-
anteknum þessum fjøtrum. 30. Nú stód Kon-
úngurinn upp og Landstjórnarinn og Berníke
og þeir, ed hjá þeim sátu; 31. og þá
þeir voru burt gengnir, tøludu þeir sín á
milli og søgdu: þessi madur hefir ekkért
framid, sem dauda sé verdt edur banda. 32.
En Agrippa sagdi vid Festus: þessum manni
hefdi mátt sleppa, ef hann hefdi ekki skotid
sér fyrir Keisarann.

V. 14. *a.* Þ. e. ad setja þig móti mínu veldi. V. 23. *b.* Algjørdari Guds þekkíngu. V. 26 *c.* Jesú daudi og upprisa og spámannanna spádómar voru øllum alkunnir, v. 22, 23. V. 28. Þetta segir Agrippa í skopi.

## 27. Kapítulí.

Páll er sendur til Róm; síglíngin verdur hættuleg, svo Páll rædur til ad fara ekki frá Krít, en forgéfins; skipverjarnir komast í mesta lífsháska, en Páll hughreystir þá; þeir lída skipbrot vid eyuna Melíte, en komast þó heilir í land.

1. Þá úrskurdad var, ad vér skyldum sigla til Ítalíu, og búid var ad afhenda Pál og nokkra adra bandíngja hundrads-høfdíngja nokkrum úr Keisara herflokknum, er Júlíus hét; 2. stigum vér á eitt adramytiskt a) skip, er koma átti vid í nokkrum sjóstødum í Asíu, og létum í haf. Sá Masedoniski Aristarkus frá Tessaloniku, var oss samferda. 3. Næsta dag nádum vér Sídon. Júlíus var mannúdlegur vid Pál og lofadi honum ad fara á fund vina sinna og þyggja þeirra greidvikni. 4. Þadan fórum vér og sigldum undir Kípur, því mótvindur var; 5. komumst svo yfir hafid fyrir framan Silisíu og Pamfilíu og nádum Mýru í Lysíu. 6. Þar fann hundrads-høfdínginn skip frá Alexandríu, er sigla átti til Ítalíu og kom oss á þad.

7. Nú gékk marga daga síglíngin tregt, svo vér nádum med þraut Knídus, søkum andvidris, sigldum því undir Krít, vid Salmóne. 8. Eptir þrá-beitíng fram med eyunni, komumst vér á einn stad, sem kallast Gódhafnir, í grend vid borgina Laseu. 9. Enn leid drjúgur tími og sjóferdir tóku þegar ad verda hættulegar, því þá var og fastan þegar lidin. Þess vegna gaf Páll þeim svolátandi vidvørun: 10. Gódir menn! eg sje ad síglíngu vorri muni verda samfara bædi óvedur og tjón, ekki einúngis fyrir farminn og skipid heldur og fyrir líf vort. 11. En hundrads-høfdínginn trúdi betur Stýrimanninum og skipeigandanum, en Páls tilløgum. 12. Og þar høfnin var óhentug til vetrarlegu, svo vard flestra rád ad halda þadan, í von um ad sér tækist ad ná til vetrarlegu, í þeirri høfn í Krít, er kallast Feníka, og snýr til sudvesturs og nordvesturs. 13. En þar ed vindurinn blés hægt á sunnan, svo héldu þeir ad ætlan sín væri svo ad segja sér í hendi; drógu því upp akkér og sigldu fram med Krít nálægt landi. 14. Skømmu sídar datt á þad ofvidri, sem kallad er Oldurcesír, 15. og hreif skipid med sér, svo ekki vard beitt í vindinn; urdum vér því ad géfa upp stjórn og láta reka, sem vildi. 16. Þá bar oss ad litilli eyu, sem hét Kláde, og gátum vér naumast haldid bátnum. 17. Þegar vér høfdum tekid bátinn upp í skipid, gripum vér til alls þess, sem til bjargar gat ordid, og vøfdum skipid; og þared þeir óttudust ad skipid mundi berast á grynníngar, feldu þeir seglid og létu svo reka. 18. Þegar vér þannig hrøkktumst af offavedri, var skipid rudt daginn eptir, 19. og á þridja degi fleygdum vér med egin høndum út áhøldum skipsins. 20. Med því ad í marga daga sást ekki sól né stjørnur, og illvidrid, sem á lá, var ekki litid, mistum vér loksins alla von um ad komast lifs af. 21. En þá menn høfdu leingi einkis matar neytt, gékk Páll fram millum þeirra, og sagdi: gódir menn! þér hefdud átt ad gégna mér og leggja ekki út frá Krít, og firrast svo þessa armædu og fjártjón; 22. en nú áfýsi eg ydur ad hressa upp gédid, þar einkis okkar líf mun týnast, heldur einúngis skipid. 23. Því í nótt stód hjá mér Engill Guds, þess eg dýrka og hvørs eg er, segjandi: 24. óttastú ekki, Páll!

V. 2. a. Frá Adramytium, einni borg i Mysiu i litlu Asíu. V. 6. 3 Mós. 23, 27—30. V. 7. Knidus, annes i litlu Asíu. Salmone, høfdi á Krít. V. 9. Fastan, hin stóra forlíkunarhátíd, 3 Mós. 16, 29. Skgr. 23, 29. V. 16. Kláde, litil ey i sudvestur frá Krít. V. 17. Grynníngar, þær nafnkéndu hættulegu grynníngar, Syrtes vid sudurálfu strandir.

fyrir Keisarann áttú ad koma, og vit, ad Gud hefir géfid þér alla, sem eru á skipinu med þér. 25. Verid þess vegna, gódir menn! med glødu gédi; því eg treysti Gudi, ad þad muni efnast, sem mér var sagt. 26. En ad einhvørri eyu hljótum vid ad hrekjast.

27. En þá sú fjórtánda nótt var yfir komin, og oss var ad hrekja í Adríu hafi, grunadi skipverjana, um midnættis leiti, ad land mundi vera í nánd. 28. Þeir kønnudu þá djúpid, og fundu tuttugu fadma djúp. Og eptir ad litlu hafdi þokad áfram, kønnudu þeir þad aptur, og fundu ad þad var fimtán fadma. 29. Nú óttudust þeir, ad oss mundi bera uppá skér, køstudu því fjórum atkérum úr skutnum, og óskudu dags. 30. En sem hásetarnir leitudust vid ad flýa úr skipinu og létu bátinn nidur síga undir því yfirvarpi, ad þeir vildu fá atkérum út komid úr framstafninum, 31. sagdi Páll vid hundrads høfdíngjann og strídsmennina: séu þessir ekki kyrrir í skipinu, þá gétid þér ekki lífs af komist. 32. Strídsfólkid hjó þá á festar bátsins og slepptu honum. 33. En þángad til birta færi, hvatti Páll alla ad matast, segjandi: þér hafid nú þegar bedid fastandi fjórtán daga, án þess ad taka ydur fædu. 34. Nú ræd eg ydur ad taka fædslu, því þad þénar ydur til bjargar; en ekki eitt hár mun falla af ydar høfdum. 35. Ad svo mæltu tók hann braud, gjørdi Gudi þakkir í allra augsýn, braut þad og fór ad eta. 36. Þá hresstust allir og fóru ad matast líka; 37. en á skipinu voru alls tvø hundrud sjøtíu og sex manns. 38. Þegar menn voru mettir, var létt á skipinu og matvælunum kastad í sjóinn. 39. Eptir døgunina sáu menn land, en þekktu ekki. Þeir urdu varir vid vík eina, med sléttri fjøru og vildu halda þángad skipinu, ef kostur væri. 40. Þeir losudu þá atkérin og hleyptu þeim í sjóinn, leystu um leid stýristaumana, drógu upp seglid (og snéru því) eptir vindinum, héldu svo til lands. 41. En þar ed fyrir þeim vard rif, sleytti skipid, svo framstafninn festist og vard óhræranlegur, en skutinn leystist í sundur, af ofurefli bylgnanna. 42. Strídsmennirnir rédu þá til, ad fángarnir væru drepnir, svo enginn syndti í land og kæmist undan. 43. En hundrads høfdínginn, sem vildi forda Páli, aptradi því fyrirtæki og skipadi, ad þeir, sem syndir væru, skyldu fyrst kasta sér útbyrdis og leita lands; 44. en hinir, sumpart á fjølum, sumpart á einhvørjum flekum skipsins. Og þannig tókst þad ad allir komust heilir til lands.

## 28. Kapítuli.

*Fólkid á Melíte audsýnir Páli mikinn vingjarnleika; Páll skadast ekki af nodrunni; hann læknar fødur Publíusar og fleiri; siglir þadan til Sýrakúsa og Púteóli og kémur til Róm; heldur rædu fyrir Gydíngunum í Róm; kénnir þar hindrunarlaust í tvo ár.*

1. Þá menn þannig høfdu af komist, fengu þeir ad vita, ad eyan hét Melíte a). 2. Þeir útlendu b) sem þar bjuggu, audsýndu oss ekki álgenga mannelsku, kveiktu eld og tóku móti oss øllum, því óvedur var og kuldi. 3. En er Páll hafdi safnad sér hrís-vendli og lagt á eldinn, þá skreid nadra undan hitanum og festi sig á hendi hans. 4. Þegar eyarmennirnir sáu þetta illyrmi loda vid hønd hans, søgdu þeir sín á milli: vissulega er þessi madur manndrápari, fyrst hefndin lofar honum ekki ad lifa, þá hann er sloppinn úr sjáfar-háskanum. 5. Páll hristi þá af sér kvik-

V. 1. *a.* Líklega sú ey, sem nú kallast Malta. V. 2. *b* Útlenda kølludu Grikkir og Rómverjar alla þá sem voru annarar þjódar. Þeir á Malta voru ættadir frá Karthagó, óvina borg Rómverja, en á skipinu voru Rómverskir menn.

índid útí eldinn, og vard ekkért meint vid. 6. En þeir væntu eptir ad hann mundi þrútna upp edur detta sviplega daudur nidur. En er þeir høfdu bidleikad lengi og sáu ekkért frá-brugdid á honum, breyttu þeir meiníngu sinni, og søgdu hann Gud vera.

7. Í grend vid þetta pláts átti helsti madur á eyunni, ad nafni Públíus, búgard. Hann baud oss heim og hýsti oss í þrjá daga vinsamlega. 8. En þad vildi svo til, ad fadir hans lá þúnglega haldinn af sóttveiki og nidurgángi. Páll gékk til hans, badst fyrir, lagdi sínar hendur yfir hann og læknadi hann. 9. Eptir þenna vidburd komu adrir eyar-menn, þeir ed kránkir voru, og létu sig lækna. 10. Þeir høfdu oss líka í hávegum, og veittu oss ad skilnadi þad sem vér medþurftum á ferdinni.

11. Eptir þrjá mánudi héldum vér þadan á skipi frá Alexandríu, sem legid hafdi þar um veturinn og markad var Tvíburunum a). 12. Vér sigldum nú til Sýrakúsu og dvøldum þar þrjá daga. 13. Þadan sigldum vér í kríng b) og komum yfir til Regíum; fengum þá eptir einn dag byr á sunnan og komum næsta dag til Púteóli. 14. Þar fundum vér brædurna, sem bádu oss ad dvelja hjá sér sjø daga, og svo komumst vér til Róm. 15. Undir eins og brædurnir þar heyrdu vor gétid, géngu þeir út á móti oss til Appíí torgs og svo nefndra þriggja búda. Þegar Páll sá þá, gjørdi hann Gudi þakkir og hresstist í huga. 16. En er vér komum til Rómaborgar, afhendti Hundrads-høfdínginn bandíngjana hiudstjóranum, en Páli var leyft ad vera í húsi sér, undir gætslu eins strídsmanns.

17. Þad skedi eptir þrjá daga, ad Páll samankalladi helstu menn Gydínga, og þá þeir voru komnir, mælti hann: gódir menn og brædur! jafnvel þótt eg ekkért bryti móti þjód vorri, edur sidum fedra vorra, var eg (samt) í Jerúsalem bundin og ofurseldur Rómverjum, 18. hverjir, eptir haldid ransak, vildu láta mig lausan, þared engin misgjørd, sem dauda væri verd, fannst hjá mér. 19. En er Gydíngar þvertóku þad, neyddist eg til ad skjóta mér fyrir Keisarann, þó ekki í þeirri veru, ad eg hefdi nokkud ad klaga þjód mína fyrir. 20. Af þessari orsøk hefi eg látid kalla ydur, svo eg mætti sjá og tala vid ydur; því søkum Ísraels vonar c) ber eg þessa hlekki. 21. Þeir svørudu: engin bréf høfum vér fengid frá Gydínga-landi þig áhrærandi og enginn landi vor er kominn, sem borid hafi edur talad nokkud íllt um þig. 22. Allt ad einu óskum vér ad heyra hvad þér sýnist; því þad er oss kunnugt, ad þessi trúarflokkur fær allstadar mótmæli. 23. Á tilteknum degi, sem þeir høfdu ákvedid vid hann, komu mjøg margir í hans herbergi, og frá því árla um morguninn til kvølds, setti hann þeim fyrir sjónir og útþýddi þeim lærdóminn um Guds ríki og leitadist vid af Mósis løgmáli og Spámønnunum, ad sanna þad allt, er snerti Jesúm. 24. Nokkrir féllust á þad sem hann sagdi, en sumir létu sig ekki sannfæra. 25. Þá þeir nú skildust ad sundurþykkir sín á milli, bætti Páll þessu eina vid: ágjætlega hefir heilagur Andi fyrir munn Esaíasar Spámanns ad ordi kvedid vid fedur vora: 26. „far til þessa fólks og seg: med eyrunum munud þér heyra og ekki skilja; sjáandi munud þér horfa á, og samt ekki sjá; 27. því tilfinníngarlaust er ordid hjarta

V. 11. *a* Þessir heidnu gudir nefndust annar Kastor en annar Pollúx, og dýrkudust sérílagi af sjófarendum. V. 13 *b*. Í kríng, annadhvort í kríng um Italíu odda, eda nes þad, á Sikiley, sem er fyrir nordan Sýrakúsu. V. 15. Appii Torg var lítil borg, sem lá 43 Rómverskar mílur frá Róm vid Appii þjótbraut. Þær þrjár búdir var gestgjafahús, 10 mílur nær Rómaborg. V. 20. *c*. Ísraels vonar um komu Frelsarans. V. 26. Es. 6, 9, 10.

þessa fólks; þúngheyrdar eru hlustir þess;
augunum heldur þad fast aptur, svo þad fái
ekki sjed med augunum, né heyrt med eyrun-
um, né skynjad med hjartanu, edur snúi sér,
svo eg géti læknad þad". 28. Ydur sé því
vitanlegt: ad Guds hjálpræði er burt sendt til
heidinna þjóda, sem því munu finna. 29.
Þegar hann hafdi svo talad, geingu Gyd-
íngarnir burtu og høfdu mikla þráttun inn-
byrdis. 30. Páll bjó full tvø ár í herbergi
því er hann hafdi til leigu, tók á móti øllum,
er til hans komu, bodadi Guds ríki og kéndi
um Herrann Jesúm med allri djørfúng, og
bannadi honum þad enginn.

# S. Páls Pistill til Rómverja.

## 1. Kapítuli.

*Postulinn heilsar þeim kristnu í Rómaborg; Vitnar um sína laungun ad koma til þeirra og ad boda þeim Krists lærdóm. Talar um heidíngjanna raungu Gudsdýrkun, illt athæfi og verdskuldad daudastraff.*

1. Páll, þjón Jesú Krists, kalladur til
Postula a), frá skilinn til (ad boda) Guds fagn-
adar erindi, 2. hvørju hann hafdi ádur lof-
ad b) fyrir spámenn sína í heiløgum Ritníng-
um, 3. um sinn Son, fæddan af c) sædi Davíds
eptir holdinu 4. krøptuglega auglýstann d) Guds
Son eptir anda heilagleikans, med upprisunni
frá daudum, Jesúm Krist vorn Drottinn, 5.
af hvørjum vér medtekid høfum e) nád og Post-
ula dæmi, til þess hlýdt yrdi trúnni, hon-
um til dýrdar, medal allra þjóda, 6. í hvørra
tølu þér og svo erud af Jesú Kristí kalladir,
7. (óskar) øllum, sem eru í Róm, elskulegum
Guds f) kølludum heiløgum: Nád og fridur
af Gudi vorum Fødur og Drottni Jesú Kristí
sé med ydur.
8. Fyrst g) þakka eg Gudi mínum fyrir
Jesúm Krist, allra ydar vegna, ad ydar trú
er kunn ordin um allann heiminn; 9. þvíad h)
minn vottur er Gud, hvørjum eg þjóna med
mínum anda, í (ad boda) fagnadar erindi
hans Sonar, hvørsu eg án afláts minnist yd-
ar; 10. jafnan í mínum bænum bidjandi,
ad eg ef Gud vill, einhvørntíma fái gott færi,
ad koma til ydar i); 11. því ad k) mig láng-
ar til ad sjá ydur, svo ad eg meddeili ydur
nokkra andlega gjøf, til þess, ad þér styrkist;
12. þad er: ad hvørr af oss hughreysti ann-
ann medal ydar, med l) sameginlegri trú, yd-
varri og minni. 13. En eg vil ekki dylja
fyrir ydur, brædur! ad eg m) optsinnis ásetti

V. 1. *a.* Post. g. b. 9, 15. 13, 2, Gal. 1, 15. 3 Mós. 20, 26. V. 2. *b.* 1 Mós. b. 3, 15. 22, 18. 5 Mós. 18, 15. 18. 2 Sam. b. 7, 12. f. Sálm. 22, 23. f. 40, 7. f. 132, 11. Es. 4, 1. 7, 14. 9, 5. 6. 11, 1. o. s. frv. Jer. 23, 5. 6. o. s frv. Esech. 34, 23. Dan. 9, 24. Mikk. 7, 20. Post. g. b. 26, 6. V. 3. *c.* 2 Sam. 7, 12. Matt. 1, 1. 2 Tim. 2, 8. V. 4. *d.* Hebr, 1, 5. 5, 8. Post. g. b. 13, 32. f. Jóh. 10, 30. V. 5. *e.* kap. 12, 3. 15, 15. 1 Cor. 15, 10. Ef. 3, 8. 1 Tim. 2, 7. Post. g. b. 9, 15. 22, 15. 21. V. 7. *f.* 1 Kor. 1, 2, 3. 2 Kor. 1, 2. Ef. 1, 1. 2. V. 8. *g.* 1 Kor. 1, 4. 1, 3. Ef. 5, 20. 1 Tess. 1, 8, V. 9. *h.* Kap. 9, 1. Gal. 1, 20. Fil. 3, 3. Ef, 1, 16. 2 Tim. 1, 3. V. 10. *i.* 1 Tess. 3, 10. V. 11. *k.* Kap. 15, 23. 29. Lúk. 22, 32. 1 Tess. 3, 2. 13. 2 Tess. 2, 17. V. 12. *l.* 2 Per, 1, 1. V. 13. *m.* 1 Tess. 2, 18.

mér ad koma til ydar (en eg hefi hindradur
verid allt til þessa) svo ad eg gjæti haft
nokkurn ávøxt og svo medal ydar, eins og
medal annara þjóda. 14. Eg er í skuld vid
bædi Grísska og ei Grísska, bædi vitra a) og
vankunnandi, 15. svo líka — hvad mig snert-
ir fúslega — einnin vid ydur, sem erud í
Róm, ad eg bodi fagnadar eyrindi, 16. þared eg b)
skammast mín ekki fyrir Krists fagnadar eyr-
indid; því þad er kraptur Guds til sáluhjálpar
sérhvørjum trúudum, Gydíngi fyrst og Grísskum
einnin; 17. þvíad rettlæti Guds opinberast í því
fagnadar eyrindi af trú til trúar c) svo sem
skrifad er: en hinn réttláti af trú, mun lifa d).

18. En reidi Guds er opinberud af himni
yfir øllum ógudlegleika og óréttvísi manna,
þeirra, sem sannleikanum med óréttvísi nidur-
þrykkja; 19. þared þad, sem vitanlegt er um
Gud, þad e) er þeim augljóst, því ad Gud
hefir þeim þad auglýst, 20. med því, ad hans
ósýnilegu eginlegleikar, hans enn eilífi kraptur
og guddómur, frá veraldarinnar skøpun, skil-
janlegir af verkunum, eru bersýnilegir, svo ad
mennirnir hafa enga afsøkun; 21. því þótt
þeir vissu af Gudi, þá vegsømudu þeir hann
ekki, sem Gud, né voru þakklátir, heldur urdu
hégómlegir í þeirra þaunkum, og f) þeirra
skilníngslausa hjarta formirkvadist; 22. þá
þeir g) þóttust vitrir vera, eru þeir heimskíng-
jar ordnir, 23. og snéru dýrd ens ódaudlega
Guds í líkneski daudlegs manns, fugla og
ferfætlínga og skridkvikinda; 24. þess vegna
hefir Gud ofurselt þá þeirra hjartans girnd-
um til saurlifnadar, ad þeir smánudu sína
líkami hvørr á ødrum, 25. þeir skiptu um
sannleika Guds fyrir lýgina h) og gøfgudu
og dýrkudu skepnuna fram yfir Skaparann
sem er blessadur um eilífdir, Amen! i) 26.
Þar fyrir hefir Gud ofurselt þá svívyrdilegri
lostasemi, því ad bædi umskipti þeirra kvenn-
fólk náttúrlegri hegdun í ónáttúru 27. og líka
hættu kallmennirnir náttúrlegum samførum vid
kvennfólkid, og brunnu af losta-girnd hvørr
til annars, svo kallmenn frømdu skømm med
kallmønnum, og tóku svo út á sjálfum sér end-
urgjald þad, sem maklegt var fyrir villu
þeirra, 28. og svo sem þeir sinntu því ekki
ad hafa Gud þekktann, svo hefir Gud ofurselt
þá fráleitu sinnislagi, svo ad þeir gjøra þad,
sem er óhæfa, 29. eru fullir allrar óréttvísi, saur-
lífis, hrekkvísi, ágirndar, vondsku, fullir øfund-
ar, víghugar, þrætugirni, svika, ósidsemi; 30.
eru kvissamir, bakmálugir, Guds hatendur,
hádgjarnir, drambsamir, sjálfhælnir, íllt upp-
finnandi, foreldrum óhlýdugir, samvitskulausir,
31. trygdrofar, ræktarlausir, ósáttgjarnir, ó-
miskunsamir; 32. hvørjir, þótt þeir þekki Guds
réttdæmi, ad þeir, sem þvílíkt gjøra, séu
dauda verdir, gjøra þeir þad samt ei ad eins,
heldur hafa og þókknun á þeim, sem þad gjøra.

## 2. Kapítuli.

Gydíngar, sem dæma adra, munu ekki umflýa dóm Guds, hvorr án manngreinar álits dæmir sérhvorn eptir hans verkum. Þeir hrósa sér forgéfins af Mósis Løgmáli og umskurninni, þegar þeir ekki færa þau sér réttilega í nyt.

1. Þar fyrir ertu óafsakanlegur, ó madur!

---

V. 14. *a.* 1 Kor. 9, 16. V. 16. *b.* 2 Tím. 1, 8. 12. V. 17. *c.* eda: réttlæti sem Gud veitir vegna trúar þeim trúudu, opinberast i því fagnadareyrindi. Kap. 3, 21, 22. Phil. 3, 9. *d.* Hab. 2, 4. Gal. 3, 11. Jóh. 3, 36. V. 19. *e.* Post. g. b. 14, 15. 17, 24, f. V. 21. *f.* 5 Mós. 28, 28. Ef. 4, 17. 18. V. 22. *g.* 1 Kor. 1, 20. V. 23. V. 23. Spek. b. 11, 16. 14, 15. 5 Mós. b. 4, 15. f. 2 Kóng. b. 17, 16. 29. Sálm. 106, 20. Esa. 40, 18. Jer. 2, 8. V. 24. Sálm. 81. 13. 2 Tess. 2, 11. 12. Ef. 9, 9. 10. Post. g. b. 14, 16. V. 25. *h.* Ef. 44, 20. Jer. 13, 25. *i.* Kap. 9, 5. V. 26. 3 Mós. 18, 23. Ef. 5, 11. 12. V. 27. 3 Mós. 18, 22. 20, 13. 1 Kor. 6, 9. V. 28. Sálm. 81, 13.

hvørr helst þú ert a), sem dæmir, því ad med
því þú annann b) dæmir, fordæmir þú sjálfann
þig, þegar þú, sem dæmir, gjørir hid sama.
2. Vér vitum, ad Guds dómur er réttur yfir
þeim, sem þvílíkt gjøra. 3. En þenkir þú
þad, ó madur! þú sem dæmir þá, er því-
líkt gjøra, og gjørir hid sama, ad þú
munir umflýa Guds dóm? 4. Eda forsmáir
þú ríkdóm hans gjædsku, þolinmædi og láng-
lundargéds, og veitstú ekki, ad gódgirni Guds
leidir þig til yfirbótar? 5. En med hardúd
þinni og ydrunarlausu hjarta safnar þú þér
sjálfum reidi á degi reidinnar og opinberunar
Guds réttdæmis, 6. sá er sérhvørjum mun
endurgjalda eptir hans verkum; 7. þeim sem
med stødugleika í gódu verki leita vegsemdar og
heidurs og ódaudlegleika, eilíft líf, 8. en hin-
um, sem mótþróanlegir eru, og ekki trúa sann-
leikanum, heldur hlýdnast ránglætinu c) brædi
og reidi; 9. þjáníng og þreyngíng (mun koma)
yfir sérhvørs manns sál, er illt fremur, fyrst
Gydíngs, svo og hins Gríska. 10. En veg-
semd og heidur og fridur (mun hlotnast) sér-
hvørjum er gott ydkar, fyrst Gydíngi svo og
Grískum; 11. því ad ekki er manngreinar á-
lit hjá Gudi; 12. svo hvørjir sem án d) løg-
máls syndgudu, munu og án løgmáls fellast,
og þeir, sem undir løgmálinu syndgudu, munu
eptir løgmálinu dæmast; — 13. því ad ekki
eru heyrendur løgmálsins réttlátir fyrir Gudi,
heldur munu gjørendur løgmálsins réttlætast;
14. því þegar heidíngjarnir, sem løgmálid ekki
hafa, gjøra af náttúrunni, e) hvad løgmálinu
er samkvæmt, þá eru þeir, þótt ekki hafi
þeir løgmálid, sjálfum sér løg; 15. þar med
sýna þeir, ad innihald løgmálsins sé skrifad í
þeirra hjørtum, hvad og med þeim sannar þeirra
samvitska og hugrenníngar, er innbyrdis ýmist
áklaga eda afsaka — 16. á þeim degi, þegar
Gud mun dæma þær huldu (hugrenníngar)
mannanna, eptir minni nádarbodskapar kénníngu,
fyrir Jesúm Krist.

17. Sjá! þú nefnir þig Gydíng, og þykist
gódur fyrir þig af løgmálinu, og f) hrósar þér
af Gudi, 18. og þú veitst viljann (Guds) og
reynir hvad milli ber, uppfræddur af løgmálinu,
19. þú treystir þér til ad vera leidtogi blind-
ra, ljós þeirra, sem eru í mirkri, 20. typtun-
ar-madur fávísra, lærimeistari barna, sem haf-
ir form þekkíngarinnar og sannleikans í løgmál-
inu; 21. þú þar fyrir, sem kénnir ødrum, þú
kénnir ekki sjálfum þér! þú, sem prédikar, ad
ekki skuli stela, þú stelur! 22. þú, sem segir,
ad ekki skuli hórdóm drýgja, þú drýgir hór!
þú, sem hefir andstygd á skurdgodum, þú rænir
helgidómum! 23. þú, sem g) hrósar þér af
løgmálinu, þú vanvyrdir Gud med yfirtrodslu
løgmálsins! 24. því ad fyrir ydar skuld
verdur nafnid Guds lastad medal heidíngjanna,
svo sem skrifad er. 25. Ad sønnu er um-
skurn nytsamleg, ef þú breytir eptir løgmál-
inu, en ef þú ert løgmáls yfirtrodslu madur,

---

V. 1. a. Þó þú værir Gydíngur. b. Matt. 7, 2. V. 4. 9, 22. f. 2 Pét. 3, 9, 15. Spek. 6. 12, 10. V. 6. Sálm. 62, 13. 1 Kor. 3, 8. Job. 34, 11. Jer. 17, 10. 32, 19. Matt. 16, 27. 2 Kor. 5, 10. V. 8. straff og hegníng, 2 Tess. 1, 8. V. 9. Kap. 3, 9. V. 11. 1 Pét. 1, 17. Post. gb. 10, 34. Gal. 2, 6. 5 Mós. 6. 10, 17. 2 Kron. 19, 7. Job. 34, 19. Efes. 6, 9. V. 12. c. Þ. e. Mósis løgmáls. V. 13. Jak. 1, 22. Matt. 7, 21. V. 14. d. Matt. 7, 12. V. 16. Er med millisetníng adskilid frá 12 versinu. Préd. 6. 12, 14. 1 Kor. 4, 5. 2 Kor. 5, 10. Matt. 25, 31. f. Post. gb. 17, 31. Jóh. 5, 22. f. V. 17. e. Kap. 5, 11. V. 18. Fil. 1, 10. V. 19. Matt. 15, 14. V. 21. Sálm. 50, 16. fl. Matt. 23, 3. f. V. 23. f. Kap. 9, 4. V. 24. Es. 52, 5. 1 Tím. 6, 1. 2 Sam. 12, 14. Es. 36, 20—23.

þá er umskurnin þín ordin ad yfirhúd; 26. Þar fyrir ef a) yfirhúdin gjætir réttinda løgmálsins, mun ekki yfirhúdin hans reiknud verda fyrir umskurn? 27. Og sú náttúrlega yfirhúd, sem heldur løgmálid, mun dæma þig, sem þrátt fyrir bókstaf og umskurn ert løgmáls yfirtrodslu-madur; 28. Því ad ekki er hann Gydíngur, sem er þad opinberlega, ekki heldur þad umskurn, sem er opinberleg á holdinu, 29. heldur hann, sem heimuglega er Gydíngur og umskurn hjartans í anda en ekki bókstaf, hvørrar lofstýr ekki er af mønnum, heldur af Gudi.

## 3. Kapítuli.

*Gydínganna yfirburdir, og þeirra syndir. Þess vegna réttlætist enginn af løgmálinu, heldur vegna trúarinnar á Jesúm Krist.*

1. Hvørjir eru þá yfirburdir Gydíngsins? eda hvør nytsemi umskurnarinnar? 2. miklir á allann hátt; einkanlega ad sønnu þessvegna, ad þeim er trúad til ordanna Guds. 3. Hvad þá, ef nokkrir hafa verid vantrúadir, mundi vantrúin þeirra trúfestina Guds ónýta? 4. fjærri sé því! Gud skal vera sannordur, þótt hvørr einn madur væri lygari, svo sem skrifad er: svo ad þú hafir rétt í þínum ordum, og vinnir þegar þú dæmist. 5. En ef vort ránglæti prísar Guds réttlæti, hvad skulum vér þá segja? mun Gud vera ránglátur, ad hann lætur reidina yfirdynja? (eg gjøri manni upp ordin), 6. Þad sé lángt frá! þvíad hvørninn skal þá Gud heiminn dæma? 7. Því ef sannleikinn Guds hefir fyrir mína lygd yfirgnæft honum til dýrdar, hvar fyrir dæmist eg þá enn nú sem syndari? 8. og egum vér ekki (eins og vér erum spottadir fyrir, og svo sem sumir mæla, ad vér kénnum), ad gjøra hid illa, svo gott af leidi? slíkra fyrirdæmíng er rétt. 9. Hvad þá? erum vér fremri? aldeilis ekki; því ad vér høfum ádur med røkum sýnt, ad bædi Gydíngar og Grískir, séu allir undir synd, 10. svo sem skrifad er: einginn er réttlátur og ekki einn, ekki er einn skynugur, 11. ekki er neinn sem ad Gudi leiti, 12. allir hafa þeir frávikid, og eru til samans ónýtir ordnir, ekki er neinn, sem gott gjøri, ekki einn einasti. 13. Opnud grøf er barki þeirra, med túngum sínum svíkja þeir. Høggorma eitur er undir vørum þeirra. 14. Þeirra munnur er fullur af bølvun og beiskleika. 15. Fljótir eru fætur þeirra til ad úthella blódi. 16. Tjón og eydileggíng er á vegum þeirra, 17. og veg fridarins vita þeir ekki. 18. Ekki er ótti Guds fyrir augum þeirra. 19. En vér vitum, ad hvad helst løgmálid segir, þad talar þad til þeirra, sem undir løgmálinu eru, svo ad hvørr einn munnur verdi ordlaus, og allur heimurinn (verdi) sakfallinn vid Gud.

20. Þess vegna mun af løgmáls verkum alls ekkert hold réttlætast fyrir honum; þvíad af løgmáli kémur þekking syndar.

---

V. 26. a. Sá óumskorni. V. 28. Jóh. 8, 39. Róm. 9, 7. f. V. 29. Gal. 6, 15. 1 Pét. 3, 4. 5 Mós. b. 10, 16. 30, 6. Jer. 4, 4. Fil. 3, 2. 3. Kól. 2. 11. 1 Kor. 4, 5. 1 Tess. 2, 4. V. 2. Kap. 9, 4. 5 Mós. b. 4, 7. Sálm. 147, 19. V. 3. Kap. 9, 6. Hebr. 4, 2. 2 Tím. 2, 13. V. 4. Jóh. 3, 33. Sálm. 62, 10. 116, 11. Sálm. 51, 6. V. 5. Job. 8, 3. 34, 10. Róm. 9, 14. Gal. 3, 15. V. 6. 1 Mós. b. 18, 25. Post. gb. 17, 31. V. 8. 1 Sam. 15, 21. f. V. 9, Gydíngar, Gal. 3, 22. V. 10. Sálm. 14, 2. 3. 53, 2–4. V. 13. Sálm. 5, 10. 140, 4. V. 14. Sálm. 10, 7. V. 15. Ordsk. b. 1, 16. Esa. 59, 7. V. 18. 1 Mós. b. 20, 11. Sálm. 36, 2. V. 19. Esek. 16, 63. V. 20. Gal. 2, 16. engin manneskja, Róm. 7, 7.

21. En nú er án løgmáls réttlætíng Guds
opinberud, umvitnud af løgmálinu og Spá-
mønnunum, 22. já, réttlætíng Guds fyrir trú
á Jesúm Krist til allra og yfir alla a), sem
trúa, því ad hér er enginn greinarmunur, 23.
því ad allir hafa syndgad, og hafa skort á
lofstýr hjá Gudi; 24. þeir verda réttlættir
án verdskuldunar af hans náð fyrir endurlausn-
ina í Kristó Jesú, 25. hvørn Gud hefir fram-
sett forlíkunar fórn, fyrir trúna, í hans blódi,
til auglýsíngar síns réttlætis med fyrirgéfníngu
syndanna, er ádur drýgdar voru undir Guds
þolinmædi; 26. til auglýsíngar síns réttlætis
á nærverandi tíma, til þess, ad hann réttlát-
ur sé, og réttlætandi þann, sem hefir trúna
Jesú.

27. Hvar er þá hrósunin? hún er útilok-
ud; fyrir hvørt løgmál? verkanna? nei, held-
ur fyrir løgmál trúarinnar; 28. þar fyrir á-
lyktum vér, ad af trú réttlætist madur án
løgmáls verka. 29. Eda er Gud einúngis
Gud Gydínga? en ekki líka heidíngja? 30.
vissulega og svo heidíngja, af því, ad einn er
Gud, sem réttlæta mun umskurn af trú, og
yfirhúd vegna trúarinnar. 31. Gjørum vér
þá løgmálid ógyldt fyrir trúna? fjærri sé
því! heldur stadfestum vér løgmálid.

## 4. Kapítuli.

Abrahams dæmi upplýsir réttlætíngu af trúnni.

1. Hvad skulum vér þá segja, ad vor fad-
ir Abraham hafi fundid eptir holdinu? 2. Því
ad ef Abraham er réttlættur vegna verka, þá
hefir hann lofstýr, en ekki hjá Gudi; 3. því ad
hvad segir Ritníngin? En Abraham trúdi
Gudi, og þad vard honum reiknad til réttlætis.
4. En þeim sem verk vinnur, verda launin ekki
af náð tilreiknud, heldur eptir skyldu, 5. en þeim
er ekki verk vinnur, en trúir á þann, sem rétt-
lætir ógudrækinn, verdur trú sín reiknud til réttlætis;
6. svo sem og Davíd prísar sælu þess manns,
hvørjum Gud tilreiknar réttlætid án verka. 7.
Sælir eru þeir, hvørra afbrot eru fyrirgéfin,
og hvørra syndir eru huldar. 8. Sæll er sá
madur, hvørjum Drottinn tilreiknar ekki synd!
9. Er nú sæla þessi yfir umskurnina edur og yfir
yfirhúdina komin? Því ad vér segjum, ad A-
braham hafi trúin til réttlætis reiknud verid,
10. hvørnin er hún þá honum tilreiknud? þeg-
ar hann var í umskurn eda med yfirhúd? ekki
í umskurn, heldur med yfirhúd; 11. og hann
medtók teikn umskurnar, sem innsígli réttlætis-
ins af trú þeirri, er hann hafdi, í yfirhúdinni,
svo ad hann væri fadir þeirra sem trúa, og eru
med yfirhúdinni, ad einninn þessum yrdi rétt-

---

V. 21. Kap. 1, 17. Filipp. 3, 9. Jóh. 5, 46. Post. gb. 26, 22. V. 22. a. Til allra og yfir alla, þ. e. øllum til handa. Kap. 10, 12. Gal. 3, 28. Kól. 3, 11. V. 23. v. 9.. Kap. 11, 32. þá vantar þad, sem þeim sé til hróss eda gyldis hjá Gudi. V. 24. Ef. 2, 8. Tit. 3, 5. 7. Matth. 20, 28. Ef. 1, 7. 1 Tím. 2, 6. V. 25. í hans blódi, og s. frv. þ. e. med því hann lét hann deya, til auglýsíngar síns réttlætis, þar ed hann eptir sinni þolinmædi hafdi gengid fram hjá syndunum er ádur drýgdar voru. 2 Kor. 5, 19. Kol, 1, 20. 1 Jóh. 2, 2, 4, 10. Hebr. 4, 15. 16. Post. g. b. 13, 38. 39. 17, 30. V. 27. Kap. 4, 2. V. 28. Kap. 4, 5. Gal. 2, 16. Ef. 2, 8. V. 30. Gal. 3, 20. umskorna, þ. e. Gydínga. óumskorna, þ. e. heidíngja. V. 1. 1 Mós. b. 17, 5. Es. 51, 2. umskurninni, adrir: Mósis løgmáli. V. 2. Kap. 3, 27. Ef. 2, 9. V. 3. 1 Mós. b. 15, 16. Gal. 3, 6. V. 4. Kap. 11, 6. V. 5. Kap. 3, 28. 2 Kor. 5, 19. 21. Fil. 3, 3. V. 7. Sálm. 32, 1. 2. V. 10. 1 Mós. b. 15, 6. 17, 9. 10. V. 11. 1 Mós b. 17, 11. Gal. 3, 6. 7.

lætid tilreiknad, 12. og undir eins fadir umskurnar a) þeim, sem ekki alleina eru med umskurn, heldur og þeim, sem gánga í fótsporin trúar þeirrar, er fadir vor Abraham hafdi med yfirhúdinni b); 13. því ad ekki fyrir løgmálid var Abraham og hans sædi géfid þad fyrirheit, ad hann skyldi veraldarinnar erfíngi verda, heldur fyrir réttlæti trúarinnar; 14. því ad ef løgmálsmenn eru erfíngjar, þá er trúin kraptlaus og fyrirheitid ónýtt; 15. því ad løgmálid verkar reidi, og þar sem ekki er løgmál, þar er ekki heldur yfirtrodsla. 16. Þar fyrir vegna trúarinnar, svo þad sé af nád, til ad láta stadfast vera fyrirheitid handa øllu sædinu, ekki einasta því, sem hefir løgmálid, heldur og svo því, er hefir trú Abrahams, hvørr ed er fadir vor allra, 17. (svo sem skrifad er: þig hefi eg settann fødur margra þjóda) fyrir þad hann trúdi Gudi, hvørr ed lifandi gjørir hina daudu og kallar þad, sem ekki er, ad þad skuli vera. 18. Hann trúdi framar von med von, ad hann mundi verda fadir margra þjóda eptir því sem sagt var: svo skal þitt sædi verda! 19. og án þess ad veiklast í trúnni, vyrdti hann ekki fyrir sér sinn eginn líkama, þá þegar úrdáinn, er hann var hardtnær hundrad ára gamall, eda ad Sara var úr barneign, 20. hann efadist ekki med vantrú um fyrirheitid Guds, heldur styrktist hann í trúnni, géfandi Gudi dýrdina, 21. fulltrúa um ad hvad hann hafdi lofad, þad er hann máttugur ad gjøra; 22. þarfyrir var honum þad og til réttlætis reiknad. 23. En þad er ekki skrifad hans vegna alleina, ad þad var honum tilreiknad, 24. heldur og vor vegna, hvørjum þad mun tilreiknast, þegar vér trúum á þann, sem uppvakti Jesúm Drottinn vorn frá daudum, 25. hvørr ed framseldur er fyrir vorar misgjørdir, og uppvakinn til vorrar réttlætíngar.

## 5. Kapítuli.

Um ávexti réttlætisins. Adam og Jesús, daudinn og lífid, løgmálid og nádarbodskapurinn, sett hvad á móti ødru.

1. Þar fyrir høfum vér, réttlættir vegna trúarinnar, frid vid Gud fyrir Drottinn vorn Jesúm Krist, 2. fyrir hvørn vér einninn høfum adgáng med trúnni til þeirrar nádar, í hvørri vér støndum, og vér hrósum oss af von dýrdar hjá Gudi; 3. en ekki einasta þad, heldur hrósum vér oss einnig af hørmúngunum, vitandi, ad hørmúngin verkar þolinmædi, 4. en þolinmædin reynslu, en reynslan von, 5. en vonin bregdst ekki; því ad elska Guds er úthellt í hjørtu vor fyrir heilagann Anda, sem oss er géfinn; 6. því þegar vér enn þá vorum breiskligir, hefir Kristur á tilteknum tíma dáid fyrir rángláta; 7. því ad fyrir réttlátann c) mun varla nokkurr deya, en fyrir gódann d) vogadi kannské einhvørr ad deya. 8. En Gud prísar sína elsku til vor í því, ad þegar vér

V. 12. a. umskorinna, b. óumskorinn. V. 13. 1 Mós. b 15, 6. f. 17, 2. 8. V. 14. Gal. 3, 18. V. 15. Reidi þ. e. straff. Kap. 3, 20. 5, 13. 7, 8. 10. 1 Kor. 15, 56. Gal. 3, 19. V. 16. vegna trúarinnar, undirskilst: fékk Abraham lofordid um afkleifdina. Gal. 3, 18. V. 17. 1 Mós. 17, 4. 5. Hebr. 11, 3. V. 18. 1 Mós. b. 15, 5. 6. V 19. 1 Mós. b. 18, 11. V. 20. Hebr. 11, 8. f. V. 21. Sálm. 115, 3. Lúk. 1, 37. V. 22. 1 Mós. b. 15, 6. V. 23. Kap. 15, 4. 1 Kor. 10, 6. 11. V. 44. Post. g. b. 2, 24. V. 25. Kap. 8, 32. 1. Jóh. 2, 2. V. 1. Post. g. b. 10, 30. Ef. 2, 14. V. 2. Jóh. 10. 9. 14, 6. Ef. 2, 18. 3, 12. Hebr. 10, 19. 1 Kor. 15, 1. Hebr. 3, 6. V. 3. 2 Kor. 11, 23—32. Fil. 1, 29, Jak. 1, 2. V. 5. Hebr. 6, 18, 19. 1 Jóh. 4, 16. V. 6. Ef. 2, 1. Kol, 2, 13. Hebr. 9, 15. 1 Pét 3, 18. V. 7. c. saklausann, d. velgjørarann. V. 8. Jóh. 15, 13. f. 1 Jóh. 3, 16.

enn þá vorum syndarar, er Kristur fyrir oss
dáinn, 9. svo miklu heldur munum vér þar
fyrir nú réttlættir í hans blódi, frelsast fyrir
hann frá reidinni; 10. því ad ef vér, þá vér
vorum óvinir, urdum forlíktir vid Gud fyrir
dauda hans Sonar, miklu meir munum vér,
þá vér erum í sátt teknir, fyrir líf hans frels-
adir verda; 11. og ekki þad einasta, heldur
og einnig hrósum vér oss af Gudi fyrir
Drottinn vorn Jesúm Krist, fyrir hvørn vér
høfum forlíkunina fengid. 12. Þess vegna,
ad líka svo sem syndin er fyrir eins manns
sakir innkomin í heiminn, og daudinn vegna
syndarinnar, svo hefir og daudinn runnid inn
til allra manna, af því ad allir hafa syndgad;
13. því ad á undan løgmáli var synd í heimi,
en synd tilreiknast ekki medan ei er løgmál.
14. Samt ríkti daudinn frá Adam til Mó-
ses, einnig yfir þeim, er ekki syndgudu med
líkri yfirtrodslu og Adam, hvørr ed er fyrir-
mind þess eptirkomanda. 15. En ekki er eins
og fallinu nádargjøfinni háttad; því ad ef
margir dóu vid þess eina fall, þá hefir miklu
meir nádin Guds og gáfan af nádinni þess
eina manns Jesú Krists verid yfirgnæfanleg
handa þeim mørgu; 16. og ekki er gjøfin
svo sem (þad er kom) vegna þess eina, er
syndgadi; því ad dómurinn vard eptir eitt
(fall) til fordæmíngar, en nádargjøfin eptir
mørg føll, til réttlætíngar a); 17. því ad ef
daudinn ríkti yfir ens eina falli, vegna þess
eina, miklu meir munu þeir, er medtekid hafa
gnægdina nádarinnar og gjøfina réttlætisins,
ríkja í lífi fyrir þann eina Jesúm Krist. 18.
Sannarlega þar fyrir, svo sem vegna eins
falls, (dómur er fallinn) á alla menn til for-
dæmíngar, svo er og vegna eins réttlætíngar
nádargjøfin veitt øllum mønnum til lífs rétt-
lætis; 19. því ad eins og af óhlýdninni þess
eina manns eru þeir mørgu syndugir ordnir,
eins munu líka þeir mørgu, af hlýdni þess
eina, réttlættir verda. 20. En løgmálid inn-
kom þar ad auki, svo fallid yfirgnæfdi, en
hvar syndin yfirgnæfdi, yfirgnæfdi nádin miklu
framar, 21. til þess, ad eins og syndin ríkti í
daudann, svo skyldi og nádin ríkja fyrir rétt-
lætínguna til eilífs lífs, vegna Jesú Krists
vors Drottins.

## 6. Kapítuli.

Krists nád leyfir oss ekki ad syndga. Því ad þó
vér séum ekki undir løgmálinu, megum vér samt
ekki gefa oss í syndarinnar þjónustu, hvørrar
verdlaun eru daudi og fyrirdæmíng.

1. Hvad skulum vér þá segja? egum vér
ad liggja í syndinni, svo ad nádin yfirgnæfi?
2. þad sé lángt frá! vér sem erum daudir synd-
inni, hvørninn skyldum vér enn þá lifa í henni?
3. Eda vitid þér ekki, ad vér, svo margir sem
skírdir erum til Jesú Krists, vér erum skírdir til
hans dauda; 4. vér erum þar fyrir med honum
greptradir í skírninni til daudans, svo ad líka
sem Kristur er uppvakinn frá daudum fyrir
dýrdina Fødursins, svo egum vér einninn ad

V. 10. 2 Kor. 5. 18. Kol. 1. 20, 21. V. 11. Jer. 9, 24. 1 Kor. 1, 31. V. 12. 1 Mós. 6. 3, 6. 1 Kor. 15, 21. 1 Mós. 6. 2, 17. Rom 6, 23. V. 13, Kop. 4, 15. V. 14. 1 Kor. 15, 21. 22. V. 15. synd, syndafall. 1 Kor. 15, 22. Jóh. 1, 16. 17. V. 16. a. Eda: dómurinn, sem einn gaf tilefni til, vard til fordæmingar, en nádargjøfin, sem mørg føll gáfu tilefni til (vard) til réttlætingar. V. 18. 2 Cor 5, 15. 1 Jóh. 2, 2. V. 19. Esa. 53, 11. V. 20. Kap. 4, 15. 7, 8. Gal. 3, 19. Lúk. 7, 47. V 21. Kap. 6, 23. V. 1. Gal. 2, 17. V. 2. v. 11. Gal. 6, 14. 1 Pét. 2. 24. V. 3. Gal. 3, 27. V. 4. Kap. 8, 11. Fil. 3, 10. 11. Kól. 2, 12. Ef. 4, 23. Kól. 3, 8. f. 1 Pét. 2, 1. 4, 1. 2.

gánga í endurnýúngu líferniſins; 5. því ef vér
høfum verid ſameinadir líkíngu hans dauda,
munum vér einnig upprisunnar; 6. Því ad vér
vitum þetta, ad vor gamli madur er med hon-
um krossfestur, svo ad máttlaus verdi líkami
syndarinnar, ad ekki þjónum vér framar synd-
inni; 7. því ad hvørr einn daudur er fríadur
frá syndinni, 8. en ef vér erum daudir med Kristó,
þá trúum vér, ad vér munum einnig med hon-
um lifa, 9. vitandi þad, ad Kristur, sem er
uppvakinn frá daudum, deyr ekki framar; daudi
drottnar ekki framar yfir honum; 10. því ad
þad hann dó, þad dó hann syndinni einusinni,
en þad hann lifir, lifir hann Gudi. 11. Svo-
leidis álítid einnig, ad þér sjálfir séud daudir
syndinni, en lifid Gudi í Kristó Jesú vorum
Drottni; 12. þar fyrir ríki ekki syndin í daud-
legum líkama ydar, til ad hlýda henni í hans
girndum! 13. framleggid ekki ydar limi ráng-
lætis verkfæri syndinni, heldur framberid Gudi
sjálfa ydur, svo sem lifandi úr daudum og
limi ydar réttlætis verkfæri Gudi; 14. því ad
syndin skal ekki drottna yfir ydur, þared þér
erud ekki undir løgmáli, heldur undir nád. 15.
Hvad þá? skulum vér syndga, fyrst vér erum
ekki undir løgmáli, heldur undir nád? fjærri
sé því!

16. Vitid þér ekki, ad hvørjum þér framlegg-
id ydur sjálfa þjóna til hlýdni, hans þjónar erud
þér, hvørjum þér hlýdid, hvørt heldur syndar
til dauda, eda hlýdni a) til réttlætis. 17. En
þøkk sé Gudi, ad þér, sem vorud syndarinnar
þjónar, erud af hjarta hlýdnir ordnir því lær-
dóms formi, sem ydur hefir verid kénnt, 18.
og fríir frá syndinni, ordnir þjónar réttlætis-
ins. 19. Eg *tala ad manna vísu*, sakir veik-
leika ydar holds; því ad svo sem þér hafid
framlagt limi ydar þjóna óhreinleikanum og
ránglætinu til ránglætis, svo framleggid nú
limi ydar réttlætinu þjóna til helgunar; 20.
Því þegar þér vorud syndarinnar þjónar, þá
vorud þér fríir frá réttlætinu; 21. hvørn á-
vøxt høfdud þér þá? þad, sem þér nú skamm-
ist ydar fyrir; því ad endalyktin þess er daudi.
22. En nú, þared þér erud a) fríir frá synd-
inni og þjónustubundnir Gudi, svo hafid þér
ydar ávøxt til helgunar, en b) endalyktina ei-
líft líf; 23. því ad c) laun syndarinnar er
daudi, en d) nádargáfa Guds er eilíft líf í
Jesú Kristó vorum Drottni.

## 7. Kapítuli.

Um dauda trúadra frá løgmálinu vegna Krists dauda.
Verkun og gagn løgmálsins. Stríd holdsins og
andans hjá þeim réttlættu.

1. Vitid þér ekki, brædur! — því ad vid
þá, sem løgmálid þekkja, tala eg — ad løg-
málid drottnar yfir manninum, svo lengi hann
lifir? 2. því ad gipt kona er ad løgum bund-
in vid manninn, medan hann lifir, en þá mad-
urinn deyr, er hún laus vid mannsins løgmál.

V. 5. *Líkíngu hans dauda munum vér einnig* upprisunnar, eda: honum med því ad líkjast dauda hans, þá egum vér og ad vera þad med því ad líkjast upprisu hans. Fil. 3, 10. 11. V. 6. Gal. 2. 20. 5, 24. V. 7. 1 Pét. 4, 1. V. 8. 2 Tím. 2 11. V. 9. Opinb b. 1, 18. V. 10. Hebr. 7, 27. 9, 28. V. 11. V. 2. 1 Pét. 2, 24. Gal. 2, 19. V. 12. 1 Mós. b. 4. 7. V. 13. Kap. 12, 1. Lúk 1, 74. Gal. 2, 20 1 Pét. 4, 2. Hebr. 9, 14. V. 14. 1 Mós. b. 4, 7. V. 15. V. 1. Gal. 2, 17. 1. Kor. 9, 21. V. 16. Jóh. 8, 34. 2 Pét. 2,19. a) Þ. e. vid Gud. V. 17. 2 Kor. 2, 9. Fil. 2, 12. V. 18. Jóh. 8, 32. Gal. 5, 1. V. 19. Kap. 3, 5. veika skilníngs. V. 13. V. 20. Jóh. 8, 32. V. 21. Kap. 8, 6. V. 22. a) v. 18. b) 1 Pét. 1, 9. V. 23. c) Kap. 5, 12. Jak. 1, 15. d) Kap. 11, 6. 5, 21. 1 Pét. 1, 3. V. 1. Þ. e. hjónabands løgin gylda medan makinn lifir. V. 2. 1 Kor. 7, 10. 39. 9. Gal. 5, 4.

3. Þessvegna mun hún hórkona kallast, ef hún verdur annars manns (kona) ad manninum lifenda, en þá madurinn deyr, er hún frí vid løgmálid, svo ad hún er ei hórkona, þótt hún verdi annars manns. 4. Svo erud og þér, brædur mínir! a) daudir løgmálinu fyrir b) líkamann Krists, ad þér yrdud annars, hans sem frá daudum er upprisinn, til þess vér skyldum Gudi ávøxt færa; 5. því þá vér vorum í holdinu c) verkudu syndsamlegar tilhneigíngar þær, sem d) (þekktust) af løgmálinu í vorum limum, til ad e) færa ávøxt daudanum. 6. En nú erum vér, f) sem daudir, lausir frá løgmálinu, vid hvørt vér vorum bundnir, svo ad vér þjónum í nýúngu andans, en ekki í g) fyrnsku bókstafsins. 7. Hvad viljum vér þá segja? er løgmálid synd? fjærri sé því! heldur þekkta eg ekki syndina, nema af løgmálinu; því ad um girndina hefdi eg ekki vitad, nema løgmálid hefdi sagt: þú skalt ekki girnast! 8. En syndin tók sér tilefni af bodordinu og ól upp í mér alla girnd; því ad án løgmáls er synd daud. 9. Eg lifdi um nokkurn tíma án løgmáls, en þegar bodordid kom endurlifnadi syndin; 10. en eg dó, og komst eg ad raun um ad bodordid (géfid) til lífs vard til dauda; 11. því ad syndin, sem tók tilefni af bodordinu, tró mig á tálar og deyddi med því sama (bodordi); 12. løgmálid er ad vísu heilagt og bodordid heilagt og réttvíst og gott.

13. Er þá hid góda (bodord) ordid mér daudi? fjærri sé því! heldur syndin; svo ad opinbert yrdi, ad hún væri synd, þared hún fyrir hid góda ollir mér dauda, svo ad syndin yrdi ýfirmáta h) syndug fyrir bodordid.

14. Vér vitum því ad løgmálid er andlegt, en eg er holdlegur, seldur undir syndina; 15. því ad þad, sem eg adhefst, i) veit eg ekki, því ad þad, sem eg vil, k) gjøri eg ekki, en þad, sem eg hata, gjøri eg; 16. en ef eg gjøri þad, sem eg ekki vil, þá samsinni eg løgmálinu, ad þad sé gott; 17. svo adhefst eg þad þá ekki, heldur sú synd, sem býr í mér; 18. því eg veit, ad ekki býr gott í mér, þad er í mínu holdi; því l) ad vilja er til reidu hjá mér, en ad framkvæma þad góda m) finn eg ekki, 19. því þad góda, sem eg vil, gjøri eg ekki, en þad vonda, sem eg vil ekki, þad gjøri eg. 20. En ef eg gjøri þad eg vil ekki, þá er eg ekki framar sá, sem adhefst þad, heldur syndin, sem í mér býr. 21. Svo finn eg þá løgmálid, þegar eg vil gjøra hid góda, af því þad vonda er til reidu hjá mér, 22. því ad mig lystir til Guds løgmáls eptir enum innra manni, 23. en eg sje annad løgmál í mínum limum, sem strídir í móti løgmáli míns hugskots, og hertekur mig undir løgmál syndarinnar, hvørt ed er í mínum limum. 24. Eg vesæl manneskja! hvørr mun frelsa mig frá líkama þessa dauda? 25. Eg þakka Gudi fyrir Jesúm Krist vorn Drottinn. Svo þjóna eg þá ad sønnu sami (madurinn) med hugskotinu løgmáli Guds, en med holdinu løgmáli syndarinnar.

---

V. 3. Matt. 5, 32. V. 4. a. Kap. 8, 2. Gal. 2, 19. b. í hverjum hann er dáinn og þér med honum. Samanb. Kap. 6, 4. 5. 8. 10. V. 5. c. óumvendtir. d. V. 7. e. Kap. 6, 21. V. 6. f. Kap. 6, 2. g. Kap. 2, 29. V. 7. Kap. 3, 20. 4, 15. Mós. b. 20, 17. V. 8. V. 5, Kap. 5, 20. Gal. 3, 19. V. 10. 3 Mós. b. 18, 5. V. 12. 1 Tím. 1, 8. V. 13. h. saknæm. V. 14. Kap. 8, 3. V. 15. i. líkar mér ekki. k. V. 23. Gal 5, 17. V. 16. sbr. V. 12. V. 17. V. 20. 1 Mós. 6, 5. 8, 21. V. 18. l. Gal. 5, 17. m. megna eg ekki. V. 20. sbr. V. 17. V. 21. adr: eg finn þessvegna hjá mér, þegar eg vil gjøra hid góda, þad løgmál, ad þad vonda vill loda vid mig. V. 23. Kap. 8, 2. V. 25. 1 Kor. 1, 4.

## 8. Kapítuli.

Fordæmíngin nær ekki til kristinna, ef andinn Krists og ekki holdid stjórnar þeim. Sá sami andi gjørir þá vissa um barna-réttinn, veitir þeim gledi í mótgángi, hughreystir þá med Guds elsku, frá hvørri enginn hlutur fær þá skilid.

1. Svo er nú engin fyrirdæmíng yfir þeim,
sem eru í Kristó Jesú, hvørjir ei gánga eptir
holdinu, heldur eptir andanum; 2. þvíad løg-
málid lífgunar andans í Kristó hefir frelsad
mig frá løgmáli syndarinnar og daudans; 3.
því hvad a) løgmálinu var ómøgulegt, af því
þad vard b) vanmáttugt vegna holdsins, þad
gjørdi Gud, þegar hann med ad senda sínu
Son í líkíngu syndugs holds og c) til synda
fórnar fordæmdi (straffadi) syndina á holdinu,
4. svo ad réttlæti løgmálsins uppfylltist í oss,
sem ekki gaungum eptir holdinu, heldur eptir
andanum; 5. þvíad þeir, sem eru eptir holdinu,
hugsa um þad sem holdsins er, en hinir sem
eru eptir andanum, þad sem andlegt er; 6.
því holdsins sinna er daudi, en andans sinna
er líf og fridur, 7. vegna þess ad sinna holds-
ins er fjandskapur í gégn Gudi, þvíad hvørki
skipast hún undir Guds løgmál, né gétur þad.
8. En þeir ed í holdinu eru, géta ekki Gudi
þóknast. 9. En þér erud ekki í holdinu heldur
í andanum, svo framt andi Guds býr í ydur;
en ef nokkur ekki hefir anda Krists, sá er
ekki hans. 10. En ef Kristur er í ydur, þá
er ad sønnu líkaminn daudur vegna syndar-
innar, en andinn er líf fyrir réttlætis sakir;
11. en ef andi hans, sem d) uppvakti Jesúm
frá daudum e) býr í ydur, þá mun hann,
sem uppvakti Krist frá daudum, f) lifandi
gjøra einninn ydar daudlegu líkami fyrir þann
hans anda, sem býr í ydur. 12. Þar fyrir,
brædur! erum vér ekki skuldunautar vid hold-
id, til ad lifa eptir holdinu, 13. því ad ef
þér lifid eptir holdinu, munud þér deya, en ef
þér deydid fyrir andann líkamans gjørdir,
munud þér lifa.

14. Því, svo margir, sem leidast af Guds
anda, þeir eru Guds børn; 15. því ad þér
hafid ekki medtekid þrældóms anda aptur til
hrædslu, heldur hafid þér medtekid sona útvaln-
íngar anda, í hvørjum vér køllum Abba! Fad-
ir! 16. sá sami andi ber vitnisburd vorum
anda, ad vér erum Guds børn, 17. en ef
børn, þá og svo erfíngjar, já, erfíngjar Guds
en samarfar Krists, ef vér lídum med honum,
ad vér verdum einninn med honum vegsamleg-
ir gjørdir. 18. Því ad eg reikna, ad mót-
lætíngar núveranda tíma séu ekki verdar þeirr-
ar dýrdar, sem vid oss mun opinber verda;
19. því ad eptirlaungun sképnunnar bídur ept-
ir opinberun Guds barna, — 20. því ad sképn-
an er undirorpin hégómanum, ekki viljug, held-

---

V. 1. Kap. 10, 4. 2 Kor. 5, 17. Gal. 5, 16. V. 2. Jóh. 8, 36. Gal. 5, 1. Kap. 7, 23. V. 3. a. Post. g. b. 15, 10. Róm. 7, 14. b. Hebr. 7, 18. c. 2 Kor. 5, 21. Gal. 3, 13. til syndafórnar eda: vegna syndarinnar. V. 4. svo ad réttlæti — adrir: svo ad krøfu løgmálsins yrdi fullnægt á oss. V. 5. sbr. V. 8. 1 Kor. 2, 14. V. 6. Kap. 6, 21. Gal. 6, 8. V. 7. Kól. 1, 21. V. 8. sbr. V. 5. Hebr. 11, 6. V. 9. 1 Kor. 2, 12. 3, 16. 2 Kor. 13, 5. Gal. 4, 6. Fil. 1, 11. 1 Jóh. 3, 24. V. 11. d. Kap. 6, 4. Post. g. b. 2, 24. e. sbr. V. 9. f. Kap. 6, 5. 1 Kor. 6, 14. 2 Kor. 4, 14. Ef. 2, 5. V. 12. Kap. 6, 7. 18. V. 13. Ezech. 18, 21. Ef. 4, 22, Kol. 3, 5. 6. V. 14. 1 Jóh. 3, 24. Gal. 5, 18. V. 15. 1 Kor. 2, 12. 2 Tim, 1, 7. V. 15. Gal. 3, 26. 4, 6. Mark. 14, 36. V. 16. V. 26. 27. 2 Kor. 1, 22. 5, 5. Ef. 1, 13. 4, 30. V. 17, Spek. b. 5, 5. Gal. 4, 7. Post. g. b. 14, 22. 2 Tim. 2, 11. 12. 1 Pét. 5, 9. 4, 13. V. 18. Matth. 5, 12. 2 Kor. 4, 17. Filipp. 3, 10. 21. 1 Pét. 1, 6. 1 Jóh. 3, 12.

ur fyrir hans sakir, sem hana hefir undirlagt— 21. í von um, ad og svo sképnan sjálf muni fríud verda frá vesælum þrældómi til dýrdarlegs frelsis Guds barna. 22. Því vér vitum ad øll sképnan til samans stynur og ber fædíngar harmkvæli allt til þessa; 23. og ekki einúngis hún, heldur og þeir, sem hafa andans frumvørt og svo vér sjálfir stynjum med oss, bídandi eptir sona útvalníngunni, endurlausn vors líkama. 24. Því ad í voninni erum vér frelsadir, en von, sem sjest, er ekki von, því ad hvad einn sjer, hvørninn skyldi hann undir eins vænta þess? 25. en ef vér væntum þess, sem vér ekki sjáum, þá bídum vér þess med þolinmædi. 26. En sømuleidis andinn kémur og svo vorum óstirkleika til hjálpar, því hvad vér skulum umbidja, svo sem ber, vitum vér ekki, þá gengur sami andi í milli fyrir oss med ordlausum andvørpunum; 27. en hann, sem ransakar hjørtun, veit hvør er andans sínna, því hann gengur í milli eptir Guds vilja fyrir heilaga.

28. En vér vitum ad þeim, sem a) Gud elska, þénar allt til góds, þeim, sem b) eptir fyrirætlun kalladir eru; 29. því ad hvørja hann fyrifram þekkti, hefir hann og c) fyrifram tilætlad ad þeir skyldu verda samlíkir mind síns Sonar, svo ad hann sé d) frumburdur milli margra brædra. 30. En hvørja hann fyrifram tilætladi, þá hefir hann og kallad, en hvørja hann kalladi, þá hefir hann og réttlætt, en hvørja hann réttlætti, þá hefir hann einninn vegsamlega gjørt. 31. Hvad skulum vér til þessa segja? ef Gud er med oss, hvørr megnar þá móti oss? 32. hann, sem ekki þyrmdi sínum eginn Syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hví skyldi hann ekki og svo géfa oss allt med honum? 33. Hvørr vill ásaka Guds útvalda? Gud er sá, sem réttlætir; 34. hvørr er, e) sem fordæmir? Kristur er sá, sem dáinn er, já, miklu meira, sem líka er upprisinn, hvørr og er á f) hægri hønd Gudi, hvørr ed einninn er g) medalgángari fyrir oss. 35. Hvørr mun skilja oss vid kjærleikann til Krists? Þjáníng eda þreyngíng? eda ofsókn? eda húngur? eda nekt? eda háski? eda sverd? 36. svo sem skrifad er: þín vegna verdum vér deyddir allann daginn, vér reiknadir sem slátrunar-fé. 37. En í øllu þessu meir enn sigrum vér fyrir adstod hans, sem elskadi oss. 38. Því eg er þess fullviss, ad hvørki daudi né líf, hvørki Englar né høfdíngjadæmi né vøld, hvørki hid nærveranda né eptirkomanda, 39. hvørki hæd né dýpt eda nokkur ønnur sképna mun géta skilid oss vid Guds kjærleika, sem er í Kristó Jesú vorum Drottni.

---

V. 21. Opinb. b. 21, 5. V. 23. Gal. 4, 5. Ef. 1, 5. Lúk. 21, 28. 2 Kor, 2, 4. 5. 1 Jóh. 3, 2. V. 24. 2 Kor. 5, 7. V. 25. 2 Kor. 4, 18. Hebr. 11, 1. V. 26. léttir undir. Matt. 20, 22. Jak. 4, 3. Sakk. 12, 10. V. 27. 1 Kron. 28, 9. Sálm. 7, 10. Jer. 11, 20. 17, 10. Post. g. b. 1, 24. V. 28. a) Jak. 1, 12. 2, 5. b) Kap. 9, 11. Ef. 1, 11. 3, 11. 2 Tím. 1, 9. V. 29. c, Ef. 1, 5. 11. Fil. 3, 10. 21. 1 Jóh. 3, 2. d. Kól. 1, 15. 18. V. 31. 4 Mós. b. 14, 9. Sálm. 56, 12. 118, 6. V. 32. 1 Mós. b. 22, 16. Es. 53, 5. Jóh. 3, 16. Róm. 4, 25. 5, 6. 9. V. 33. Esa, 50, 8. V. 34. e. Job. 34, 29. Esa. 50, 9. f. Sálm. 110, 1. 1 Pét. 3, 22. Hebr. 1, 3. 8, 1. 12, 2. g. 1 Jóh. 2, 1. Hebr. 7, 25. 9, 24. V. 35. Sal. lofkv. 8, 6. 7. V. 36. Sálm. 44, 23. 1 Kor. 4, 9. 2 Kor. 4, 11. V. 37. 1 Kor. 15, 27. 2 Kor. 2, 14. 1 Jóh. 4, 4. 5, 4. 5. Opinb. b. 12, 11. V. 38. Fil. 1, 5. 2 Tím. 1, 12. Ef. 1, 21. 6, 12. Kól. 2, 15. 1 Pét. 3, 22.

## 9. Kapituli.

Guds kallan af náð, upplýst með dæmum.

1. Ég a) segi sannleika í Kristó og lýg
ekki — mín samvitska b) vitnar med mér í
heiløgum Anda — 2. ad mér er ángur mikid og
óaflátanleg kvøl í hjarta mínu; 3. því ad eg æskti
sjálfur ad vera útrekinn frá Kristó fyrir bræd-
ur mína, ættmenn mína eptir holdinu, 4.
hvørjir ed eru Israelsmenn, hvørjum tilheyrir
c) sona-útvalníngin, d) dýrdin og e) sáttmál-
arnir og løgmáls-gjøfin og f) helgihaldid og
fyrirheitin, 5. hvørra g) fedurnir eru, og þeir,
af hvørjum Kristur er kominn, ad því leiti,
sem þad er eptir holdinu, hvørr ed er yfir
øllum, Gud (sé) blessadur um aldir, Amen!
6. Ekki þvílíkt ad h) Guds ord hafi brugd-
ist, því ad ekki eru allir i) af Israel komnir
Israelsmenn, 7. og ekki af því þeir eru sædi
Abrahams, allir hans børn, heldur (segir Ritn-
íngin): í Isaak skal þér sædi kallast, 8. þad
er: ekki þau holdsins børn eru Guds børn,
heldur reiknast fyrirheitisins børn fyrir sædi; 9.
því ad ord fyriheitisins er þetta: um þenna
tíma mun eg aptur koma, og þá skal Sara
son ega, 10. og ekki alleinasta (vid hana)
heldur og — þegar Rebekka var þúngud af
þeim eina Isaak fødur vorum, 11. því ad enn
nú voru ekki (tvíburarnir) fæddir, né høfdu
gjørt neitt gott edur illt, (svo ad fyrirætlan
Guds eptir útvalníngu, stadføst væri, ekki vegna
verkanna, heldur (eptir vilja) hans, sem kall-
adi) — 12. þá var sagt vid hana: sá eldri
skal þjóna þeim ýngra! 13. svo sem skrifad
er: Jakob elskadi eg, en Esaú hatadi eg. 14.
Hvad skulum vér þá segja? er óréttvísi hjá
Gudi? þad sé fjærri! 15. því ad hann segir
vid Mósen: eg mun miskuna þeim eg miskuna,
eg mun aumkast yfir þann, er eg aumkast;
16. þarfyrir er þad hvørki komid undir kjør-
um þess, sem vill, né hins sem hleypur, held-
ur Guds, sem miskunar; 17. því Ritníngin
segir til Faraó's: til þess sama uppreisti eg þig,
ad eg sýndi mína makt á þér og svo ad mitt
nafn kunngjørt yrdi um alla jørdina. 18.
Svo miskunar hann þá þeim hann vill, en for-
herdir þann, hann vill. 19. Þú munt þá
vilja segja: hvad gétur hann þá géfid til saka?
því ad hvørr fær hans vilja í móti stadid?
20. En, ó madur! hvørr ertú, ad vilja hafa
svør vid Gud? skyldi leirsmídid segja vid þann,
sem bjó þad til: því gjørdir þú mig svona?
21. eda hefir ekki leirsmidurinn vald, ad gjøra
af sama smídis-efni eitt kér til heidurs en
annad til vanheidurs? 22. en ef Gud — þeg-
ar hann vildi audsýna reidina og kunngjøra
sína makt — umbar med k) miklu lánglund-
argédi kér reidinnar l) undirbúinn til forbjørf-
unar, 23. og svo til m) ad kunngjøra ríkdóm

V. 1. a. 1 Tím. 2, 7. b. Kap. 1, 9. V. 2. Kap. 10, 1. V. 3. 2. Mós. b. 32, 32. V. 4. c. 2 Mós. b. 4, 22. 5 Mós. b. 7, 6. Sálm. 147, 19. Jer. 31, 9. d. 2 Mós. b. 40, 34. 3 Mós. b. 9, 6. Esek. 10, 4. e. Kap. 2, 17. Ef. 2, 12. 5 Mós. b. 29, 1. f. 2 Mós. b. 12, 25. 26. 13, 5. V. 5. g. Matt. 1, 1. f. Kap. 1, 25. V. 6. h. 4 Mós. b. 23, 19. i. Kap. 2, 28. Jóh. 8, 39. Opinb. b. 2, 9. V. 7. 1 Mós. b. 21, 12. Gal. 4, 23. V. 8. Gal. 4, 28. Kap. 3, 29. V. 9. 1 Mós. b. 18, 10. V. 10. 1 Mós. b. 25, 21. V. 12. 1 Mós. b. 25, 23. V. 13. Malak. 1, 2. 3. Sálm. 47, 5. V. 14. Kap. 3. 5. 5 Mós. b. 32, 4. 2 Kron. 19, 7. V. 15. 2 Mós. b. 33, 19. Róm. 11, 32. V. 17. 2 Mós. b. 9, 16. V. 18. sbr. V. 15. V. 20. Spek. b. 12, 12. Esa. 45, 9. V. 21. Spek. b. 15, 1. Esa. 64, 7. Jer. 18, 6. Matt. 20, 15. 2 Tím. 2, 20. V. 22. k. Kap. 2, 4. l. þær straffsverdu manneskjur. V. 23. m. Kól. 1, 27.

dýrdar sinnar á kérum miskunarinnar a), hvør-
ed hann hefir ádur búid til dýrdar, 24. hvør-
ja hann hefir og kallad, þad er oss, ekki ein-
asta af Gydíngum, heldur og af heidíngjum,
25. svo sem hann og segir hjá Hósea: Eg
mun kalla þad, sem ekki var mitt fólk, mitt
fólk, og þá, sem ekki var unnusta, mína unn-
ustu, 26. og þad mun ské í þeim stad, hvar
til þeirra var sagt: þér erud ekki mitt fólk,
þar skulu þeir kalladir verda synir Guds lif-
anda. 27. En Esajas hrópar yfir Ísrael:
þótt talan Ísraels sona væri sem sjáfar sand-
ur, þá skulu leyfar einar (fáeinir) frelsadir
verda; 28. því ad sá er, sem fullkomnar ord
(hlutinn) og fljótt skér úr med réttvísi þad
ord (þann hlut), er fljótt tekur af, mun
Drottinn gjøra á jørdunni; 29. og svo sem b)
Esajas sagdi fyrrum: nema Drottinn Sebaot
hefdi eptirlátid oss sædi, værum vér ordnir
eins og c) Sódóma og Gommorra værum
vér líkir ordnir. 30. Hvad skulum vér þá
segja? ad heidíngjarnir, sem ekki sóktu eptir
réttlætinu, hafa nád réttlætinu, en réttlætinu,
sem fæst med trúnni. 31. En Ísrael, sem
sókti eptir løgmáli réttlætis, komst ekki ad løg-
máli réttlætisins. 32. Hvar fyrir? því ad
(hann sókti eptir því), ekki med trúnni, heldur
svo sem med verkum løgmálsins, því ad þeir
hafa rekid sig á þann ásteitíngar-steininn, 33.
svo sem d) skrifad er: sjá! eg set í Síon á-
steitíngar-stein og hrøsunar-hellu og sérhvørr,
sem e) á hann trúir mun ekki til skammar verda.

## 10. Kapítuli.

Gydíngar leita forgéfins eptir réttlæti af løgmálinu, því þad veitist í Jesú fyrir trúna. Þessi nád er Gydíngum forgéfins frambodin.

1. Brædur! ósk míns hjarta og bæn til
Guds er fyrir Ísrael um frelsi; 2. því eg ber
þeim vitni, ad þeir hafa vandlæting Guds vegna
en ekki med skynsemd; 3. því ad, þared þeir
þekkja ekki Guds réttlæti, en leitast vid ad stad-
festa sitt egid réttlæti, þá hafa þeir ekki undir-
kastad sig Guds réttlæti. 4. Því ad f) endir
løgmálsins er Kristur, til réttlætis sérhvørjum, g)
sem trúir. 5. Því ad Móses skrifar um þad rétt-
læti, sem er af løgmálinu: ad sá madur, sem
gjørir þessa hluti, muni lifa þar af. 6. En
þad réttlæti, sem er af trúnni segir svo: þú
skalt ekki segja í hjarta þínu: hvørr mun upp-
stíga í himininn, þad er: til ad sækja Krist?
7. eda hvørr mun nidurstíga í undirdjúpid,
þad er: til ad sækja Krist frá þeim daudu?
8. En hvad segir þad h)? nálægt er þér bod-
ordid i) í munni þínum og í hjarta þínu. Þetta
er trúarinnar ord, hvørt vér prédikum; 9. því
ad ef þú vidurkénnir med munni þínum, ad
Jesús er Drottinn, og trúir í hjarta þínu, ad
Gud hafi uppvakid hann frá daudum, muntu
hólpinn verda, 10. því ad med hjartanu verd-

---

a. Á þeim, yfir hvørja Gud hefir miskunad sig. V. 25. Hós. 2, 25. 1 Pét. 2, 10. V. 26. Hós. 1, 10. V. 27. Es. 10, 22. 23. Kap. 11, 5. V. 28. Es. 28, 22. V. 29. b. Es. 1, 9. c. 1 Mós. 19, 24. 25. Es. 13, 19. Jer. 49, 18. 50, 40. V. 31. Kap. 10, 3. 11, 17. V. 32. 1 Kor. 1, 23. V. 33. d. Sálm. 18, 22. Esa. 8, 14. 28, 16. Matt. 21. 42 e. Kap. 10, 11. Sálm. 2, 12, V. 2 Post. g. b. 21, 20. 22, 3 Gal. 1, 14. 4, 17. V. 3. Kap. 9, 30. Guds réttlæti, Guds rádstøfun til manneskjanna réttlætingar. V. 4. f. Matt. 5, 17, Gal. 3. 22 24. g. Jóh. 3, 18. Post. g. b. 13, 39. V. 5. 3 Mós. b. 18, 5. Esek. 20, 11. Lúk. 10, 28. V. 6. 5 Mós. b. 30, 12. f. V. 8, g. Þad þ. e. trúar réttlætis. h. 5. Mós. b. 30, 14. V. 9. Matt. 10, 32. 2 Tím. 2, 12. V. 10. Sálm. 116, 10. 2 Kor. 4, 4. 13. 1 Pét. 3, 15.

ur trúad, til réttlætis, en med munninum vid-
urkénnt til hjálpræðis; 11. því ad Ritníngin
segir: hvørr, sem trúir á hann, mun ekki til
skammar verda. 12. Því ad a) enginn grein-
armunur er Gydings edur hins Gríska; því ad
sá sami er b) allra Drottinn c) ríkur (nádar)
vid alla þá, sem hann ákalla; 13. því ad
hvørr, sem ákallar nafnid Drottins, mun hólp-
inn verda. 14. Hvørninn skulu þeir þá ákalla
þann, á hvørn þeir ekki trúdu? en hvørninn
skulu þeir trúa á þann af hvørjum þeir ekki
hafa heyrt? en hvørninn skulu þeir heyra án
Prédikara? 15. en hvørninn skulu þeir prédika,
nema þeir séu sendir? svo sem skrifad er: hvørsu
fallegir eru fætur þeirra, sem fridinn boda,
þeirra, sem boda hid góda. 16. En þeir hlýddu
ekki allir Gudspjallinu, því ad Esaías segir:
hvørr trúdi vorri prédikun? 17. Svo kémur
þá trúin af heyrninni, en heyrnin fyrir Guds
ord. 18. En eg spyr: hafa þeir ekki heyrt?
jú vissulega er um alla jørd útgenginn hljómur
þeirra og til endimarka heims bygdarinnar þeirra
ord. 19. En eg spyr: hefir Ísrael ekki skilid
þad? fyrst segir Móses: eg mun láta ydur met-
ast vid ópjód, og æsa ydur til reidi vid skyn-
lausa þjód. 20. En Esaías þorir líka ad seg-
ja: eg er fundinn af þeim, sem ekki leitudu mín,
og augljós ordinn þeim, sem ekki spurdu ad
mér, 21. en um Ísrael segir hann: allann
daginn útbreidi eg hendur mínar til fólks, sem
er óhlýdid og þverúdarfullt.

## 11. Kapituli.

Gydíngarnir eru ekki útskúfadir; þeir, sem nádina þyggja, eru útvaldir, hinir forherdtir, þeirra forherdíng gaf tilefni til heidíngjanna umvendunar vid hvørja Gydíngar mættu orfast til ad fylgja þeirra dæmi. Postulinn dáist ad Guds vísdómi.

1. Eg spyr þá: hefir Gud d) útskúfad sjálfs
síns fólki? fjærri sé því! því ad einnig e) eg
er Ísraels madur, af sædi f) Abrahams, ætt-
kvísl Benjamíns. 2. Ekki hefir Gud útskúfad
fólki sínu, hvørt hann fyrifram þekkti (ad vera
sitt); eda vitid þér ekki hvad Ritníngin segir
um Elías, hvørninn hann gékk framm fyrir Gud á
móti Ísrael segjandi: 3. Drottinn! Spámenn þína
hafa þeir í hel slegid og ølturum þínum umvelt og
eg er einsamall eptirlátinn og sitja þeir um líf mitt;
4. en hvad segir honum gúdlegt andsvar? eg
hefi eptirskilid mér sjálfum sjø þúsundir manna,
hvørjir ekki hafa beygt sín kné fyrir Baal.
5. Svoleidis eru þá einninn á nærverandi tíma
nokkrar leyfar ordnar eptir útvalníngu nádar-
innar. 6. En ef þad er af nád, þá er þad ekki
framar af verkum, annars væri nádin þá ekki
framar nád, en ef þad er af verkunum, þá er
þad ekki framar nád, ellegar verkid verdur þá
ekki verk framar. 7. Hvad þá? þad, sem
Ísrael g) leitar eptir, hlotnadist honum ekki,
en h) útvalníngunni hlotnadist þad, hinir adr-
ir urdu forherdtir. 8. Svo sem skrifad er:
Gud gaf þeim deyfdar anda, augu ekki til ad sjá
og eyru til ekki ad heyra allt til þessa dags í

---

V. 11. Esa. 28, 6. Sálm. 25, 3. V. 12. a. Kap. 3, 22. 29. Post. g. b. 10, 34. b. 1 Tím. 2, 5. c. Ef. 1, 7. 2, 7. V. 13. Joel, 3, 5. V. 15. Jer. 23, 21. 28, 15. Es. 52, 7. Nah. 2, 1. V. 16. 2 Tess. 1, 8. Es. 53, 1. Jóh. 12, 38. V. 17. Jóh. 17, 20. V. 18. Sálm. 19, 5. Esa. 49, 6. 2. Kor. 2, 14. Kól. 1, 6. 23. V. 19. 5 Mós. b. 32, 21. V. 20, Esa. 65, 1. V. 21. Esa. 65, 2. V. 1. d. Jer. 31, 37. e. 2 Kor. 11, 22. Fil. 3, 5. f. Kap. 9, 7. V. 3. 1. Kóng. b. 19, 10. V. 4. 1 Kóng. b. 19, 18. V. 5. Kap. 9, 27. eptir útv: nád; þ. e. er nád Guds hefir útvalid. V. 6. Kap, 3, 28. 4, 5. Ef. 2, 8. 5 Mós. 9, 4. 5. V. 7. g. Kap. 9, 31. h. þeim útvøldu leisum, V. 8. Esa. 6, 9. 10. 29, 10. Lúk. 8, 10.

dag er; 9. og Davíd segir: verdi bord þeirra
ad snøru og ad gildru og ad falli og þeim ad
endurgjaldi! 10. formirkvist augu þeirra ad
þeir sjái ekki og beyg ætíd þeirra hrygg!

11. Eg spyr þess vegna: ráku þeir sig á til
þess, ad þeir skyldu falla? fjærri sé því! held-
ur hefir af a) falli þeirra stadid heill heidíng-
jum, til þess ad þeir (Gydíngar) mettust vid
þá b). 12. En ef fall þeirra er ríkdómur heims-
ins og skadi þeirra ríkdómur heidíngjanna, hve
miklu framar þeirra fylling! 13. því ad vid
ydur, heidíngja! tala eg; ad því leiti, sem eg
er heidinna manna Postuli, vil eg mitt em-
bætti heidra, 14. ef eg gjæti hvatt mitt
hold c) (mína ættmenn) til metnadar d) og
frelsad nokkra af þeim, 15. því ef útskúfan
þeirra er forlíkan heimsins (vid Gud), hvad
mun þá medtekníng þeirra verda nema líf af
dauda? 16. En ef frumgródinn er heilagur,
þá og svo deigid; og ef rótin er heiløg, þá
og svo kvistirnir. 17. En þótt sumir af kvist-
unum séu afbrotnir, en þú sem varst villi-vid-
smjørs vidur ert gródursettur í þeirra stad og
ert ordinn hluttakari í olíutrésins rót og situ,
18. þá stær þig ekki yfir kvistunum, en ef þú
stærir þig — þá ber þú ekki rótina, heldur
rótin þig, — 19. þú vilt máské segja: kvist-
irnir eru afbrotnir, svo eg yrdi innrættur;
20. ad vísu; fyrir vantrúar sakir eru þeir af-
brotnir, en e) vegna trúarinnar stendur þú,
upphef þig ekki! heldur f) óttast! 21. því
ad hafi Gud ekki þyrmt enum náttúrlegu kvist-
um, þá mun hann enganveginn þyrma þér.
22. Sjá þar fyrir gódgirni og strángleika
Guds, strángleika vid þá, sem fallnir eru,
en gódgirni vid þig, ef þú vidheldst í gód-
girninni, annars verdur þú og einnin af-
høggvinn. 23. En hinir (follnu) munu líka,
ef þeir ekki áfram halda í vantrúnni, innrætast,
því ad máttugur er Gud aptur ad innræta
þá; 24. því ad ef þú ert afhøggvinn því
olíutré, sem af náttúrunni var villividur og í
móti náttúrunni ert innrættur gódu olíutré,
hve miklu framar munu þessir náttúrlegu
kvistir innrætast sínu egin olíutré? 25. Því
ad eg vil ekki, brædur! ad ydur sé ókuunur
þessi leyndardómur — svo ad þér varist sér-
þótta — ad forherdíng er skéd nokkurn part
í Israel, allt til þess tíma, ad fyllíng heid-
íngjanna er innkomin; 26. og svo mun all-
ur Israel frelsadur verda, eins og skrifad er:
frá Síon mun koma sá, sem frelsar og mun
útrýma ógudlegu athæfi frá Jakob, 27. og
þetta er hjá mér sáttmálinn vid þá, þegar eg
hefi burttekid þeirra syndir. 28. Eptir nád-
arbodskapnum g) eru þeir ad sønnu óvinir
(Guds) fyrir ydar sakir, en eptir útvalníng-
unni elskadir fyrir fedranna sakir; 29. þvíad
nádargjafir Guds og kallan eru þannig, ad
hann kann ekki þeirra ad ydrast; 30. þvíad
eins og þér (heidíngjar) fordum vorud Gudi
óhlýdugir, en hafid nú miskun ødlast vegna

---

V. 9. Sálm. 69, 23. 24. V. 11. a. Post. g. b. 13, 46. b. mettust vid þá nl. þegar þeir sjá hvílík heill þad er fyrir heidíngja ad vera ordnir kristnir. V. 12. Þeirra fylling þ. e. þegar þeir fylla hópinn, sbr. V. 26. V. 13. Kap. 15, 16. Gal. 1, 6. 2, 2. 8. 1 Tím. 2, 7. Post. g. b. 9, 15. V. 14. c. Kap. 9, 3. d. V. 11. V. 15. sbr. v. 12. V. 17. Jer. 11, 16. V. 19. Post. g. b. 13, 46. V. 20. e. 1 Kor. 10, 12. f. Ordskv. b. 28. 14. Esa. 66, 2. Filipp. 2, 11. V. 21. 2 Pét. 2, 4. 5. V. 22. Jóh. 15. 2. Hebr. 3, 6. V. 23. 2 Kor. 3, 16. V. 24. Jer. 11, 16. V. 25. Lúk. 21, 24. V. 26. Es. 59, 20. Sálm. 14, 7. V. 27. Jer. 31, 33. Es. 27, 9. Mich. 7, 18. V. 28. g. í tilliti til nádar bodskaparins. V. 29. 2 Tím. 2, 13.

þeirra (Gydínga) vantrúar, 31. svo eru þeir nú
einnig óhlýdnir ordnir ydur til miskunar, svo
ad þeir einnig miskun ødlist; 32. því ad Gud
hefir alla innilukt undir óhlýdnina, til þess
ad hann øllum miskunadi.

33. O! þá dýpt ríkdóms a) speki og þekk-
íngar Guds! hvørsu b) óútgrundanlegir eru
dómar hans, og ósporrækir vegir hans!
34. því ad hvørr hefir þekkt sinni Drottins?
eda hvørr hefir rádgjafi hans verid? 35. hvørr
hefir fyrri géfid honum og muni ega laun ad
honum? 36. Því ad c) af honum og d) fyrir
hann og til hans eru allir hlutir. e) Hon-
um sé dýrd um aldir, Amen!

## 12. Kapítuli.

Postulinn áminnir þá trúudu til heilags frmferdis. Ad hvørr einn svo sem limur á Krists líkama hegdi sér réttilega. Einkum i audsýníngu kjærleiks verkanna.

1. Svo f) áminni eg ydur, brædur! fyrir
miskunsemdir Guds, ad þér g) framleggid ydar
líkami svo sem h) offur, lifandi, heilagt, Gudi
þakknæmt, (hvørt ed er) ydar skynsamleg Guds
dýrkan, 2. og i) lagid ydur ei eptir øld þess-
ari, heldur takid háttaskipti med k) endurný-
úngu ydar sinnis, ad þér megid reyna, hvørr
sé l) vilji Guds, hvad m) gott er og n) (Gudi)
velþóknanlegt og fullkomid; 3. því ad eptir
þeirri o) nád, sem mér er géfin, segi eg sér-
hvørjum, sem á medal ydar er, p) ad hugsa
ekki hærra enn hugsa ber, heldur hugsa svo,
ad hann hugsi hyggilega, q) eptir því, sem
Gud hefir sérhvørjum útbýtt mælir trúarinnar.
4. Því ad svo sem vér høfum á einum líkama
marga limi, en limirnir allir hafa ekki sama
verk, 5. svo erum vér og margir einn líkami í
Kristi, en hvørr fyri sig annars limur; 6. en
høfum r) margvíslegar nádar-gáfur eptir þeirri
gáfu sem oss er géfin, 7. hvørt heldur spádóm
s) eptir reglu trúarinnar eda t) embætti —
u) erum vér hvørr annars limir — í embætt-
inu, eda kénnandi í kénníngunni, 8. eda áminn-
andi í áminníngunni; sá v) útbýtandi í hrein-
skilninni, sá x) fyrirrádandi í kostgjæfninni, sá
miskunandi y) í hírleikanum. 9. Elskan z) sé
flærdarlaus; hatid þ) hid vonda, en haldid fast
vid þad góda. 10. Verid æ) í bródurlegum
kjærleika, innilega elskandi hvør annan; hvørr
ö) verdi fyrri til vyrdíng ad veita ødrum; 11.
í ydninni ólatir, í andanum a) glóandi, b)
Drottni þjónandi, 12. í c) voninni gladir, d)
í þjáníngunni þolinmódir, í bæninni stadfast-

V. 32. Kap, 3, 9. Gal. 3, 22. V. 33. a. þ. e. nádargnægdar, sbr. Kap. 2, 4. 10, 12. Ef. 2, 7. 3, 8. b. Spek. b. 9, 13. 17. 17, 1. V. 34. Job. 36, 22. Sálm. 92, 6. Jer. 23, 18. Esa. 40, 13. 14. V. 36. c. 1 Kor. 8, 6. d. Kól. 1, 16. e. 2 Tím. 4, 18. V. 1. f. Fil. 2, 1. g. Kap. 6, 13. 16. h. Fil. 4, 18. 1 Pét. 2, 5. V. 2. i. 1 Pét. 1, 14. 1 Jóh. 2, 15. k. Ef. 4, 23. l. Ef. 5, 17. Kól. 1, 9. m. Róm. 12, 9. 21. n. Hebr. 13, 21. V. 3. o. Kap. 1, 5. p. 1 Kor. 4, 6. q. 1 Kor. 12, 1. Ef. 4, 7. 16. þ. e. samsbodid þeirri gáfu, sem Gud hefir sérhverjum útskamtad. V. 4. 1 Kor. 12, 12. Ef. 1, 22. 23. V. 5. 1 Kor. 12, 27. Ef. 5, 33. V. 6. r. 1 Kor. 12, 4. 1 Pét. 4, 10. 11. V. 7. s. þ. e. þá sýnum ver þad eptir sem vor trú er til. t. 1 Kor. 12, 28. u. Þ. e. sýnum vér þad í því embætti hve gódir limir vér erum. V. 8. v. þ. e. Safnadanna ølmusu-gjøfum. 2 Kor 8, 2. x. Post, g. b. 20, 28. 1 Pét. 5, 2. 1 Tím. 5, 17. y. 2 Kor. 9, 7. V. 9. z. 1 Tím. 1, 5. þ. Sálm. 36, 5. 139, 21. Amos. 5, 15. V. 10. æ. Ef. 4, 3. 1 Tess. 4, 9. 1 Pét. 1, 22. 2 Pét. 1, 7. Fil. 2, 3. 1 Pét. 2, 17. 5, 5. ö. adr: hagandi sér eptir tímanum. V. 11. a. Post. g. b. 18, 25. Opinb. b. 3, 15. b. Lúk. 10, 20. Róm. 15, 13. 2 Kor. 6, 10. V. 12. c. Hebr. 10, 36. 12, 1—3. d. Lúk. 18, 1. Ef. 6, 18.

ir! 13. a) takid þátt í nauðþurftum heilagra! b)
kostgjæfid géstrisnina! 14. blessid þá, er offækja
ydur! blessid en bølvid ekki! 15. fagnid med fagn=
endum og grátid med grátendum! 16. verid sam=
huga innbyrdis c), hugsid eigi hátt, heldur haldid
ydur vid þad lága! verid d) eigi sérvitrir! 17.
Gjaldid e) engum íllt fyrir íllt! f) stundid þad,
sem fyrir allra manna sjónum er sómasamlegt!
18. ef møgulegt er þá hafid, svo mikid sem
þér kunnid, frid vid alla menn! 19. hefnid ydar
ekki sjálfir, elskanlegir! heldur géfid rúm reidinni;
því ad skrifad er: mín er hefndin, eg vil end=
urgjalda, segir Drottinn. 20. Þar fyrir ef
óvin þinn húngrar, þá géf honum ad eta, ef
hann þyrstir, þá géf honum ad drekka, því
þegar þú gjørir þetta, þá safnar þú glódum
elds yfir høfud honum! 21. lát ei yfirvinna þig
af því vonda, heldur yfirvinn þú þad vonda
med því góda!

## 13. Kapítuli.

Þeir trúudu eiga ad vera Yfirvaldinu hlýdnir. Auðsýna øllum kjærleika; afleggja verk myrkranna.

1. Hvørr madur sé yfirbodnum g) valdstétt=
um undirgéfinn; því ad ekki er valdstétt nema
frá Gudi og þær valdstéttir, sem eru, þær eru
af Gudi tilskikkadar h); 2. svo ad hvørr, sem
setur sig í móti valdstéttinni, hann stendur í
móti Guds skikkun, en þeir sem í móti standa,
munu fá þeirra dóm (straff); 3. því ad valds=
mennirnir eru eigi ótti gódra verka, heldur vond=
ra. En ef þú vilt eigi óttast valdstéttina, þá
gjør hvad gott er og muntu lofstýr af henni
hafa; 4. því ad hún er Guds þénari þér til
góds, en ef þú gjørir íllt máttu óttast, því
hún ber sverdid ekki forgéfins, því ad hún er
Guds þénari, hegnari til straffs þeim, sem íllt
adhefst. 5. Þessvegna er naudsynlegt undir=
géfinn ad vera, ei alleina straffsins vegna, held=
ur og fyrir samvitskunnar sakir. 6. Þar fyr=
ir gjaldid þér og skatt, því ad þeir eru Guds
þjónar, er þessa sama ega sífeldt ad gjæta. 7.
Látid því øllum í tje, hvad skyldt er, þeim
skattinn, sem skatturinn, tollinn, sem tollurinn,
óttann, sem óttinn, heidur, sem heidurinn
tilheyrir.

8. Verid engum um neitt skyldugir, nema
þad þér elskid hverr annann; því ad hvørr,
sem elskar annann, hefir løgmálid uppfyllt; 9.
því þetta: þú skalt ei hór drýgja; þú skalt
ekki mann vega; þú skalt ekki stela; þú skalt
ekki ljúgvitni bera; þú skalt ekki girnast og sé
nokkurt annad bodord, þá er þad í þessari
grein innibundid, í þessari nefnil: elska skaltú
náúnga þinn sem sjálfann þig. 10. Elskan
gjørir ekki náúnganum mein; því er elskan
løgmálsins uppfylling.

11. Og þad því heldur, sem vér vitum
tímann ad oss er mál upp ad rísa af svefni,
því ad nú er hjálprædid oss nær, en þegar

V. 13. a. 1 Kor. 16, 1. b. 1 Pét. 4, 9. V. 14. Matth. 5, 44. 1 Kor. 4, 12. 1 Pét. 3, 9. V. 15. Sálm. 35, 13. Sír. 7, 35. V. 16. c. Kap. 15, 5. 1 Kor. 1, 10. Fil. 2, 2. Sálm. 133, 1. d. Ordskv. b. 3, 7. 26, 12. 16. Es. 5, 21. V. 17. e. Matt. 5, 39. 40. 1 Pét. 3, 9. f. 2 Kor. 8, 21. V. 18. Mark. 9, 50. Hebr. 12, 14. V. 19. 3 Mós. b. 19, 18. Matt. 5, 39. 1 Kor. 6, 7. 5 Mós. b. 32, 35. Sálm. 94, 1. Hebr. 10, 30. V. 20. Ordskv. b. 25, 21. 22. Matt. 5, 44. V. 21. 1 Sam. b. 24, 18. V. 1. g. Tít. 3, 1. 1 Pét. 2, 13. h. Ordskv. b. 8, 15, 16. Dan. 4, 32. Spek. b. 6, 3. Joh. 19, 11. V. 3. og 4. 1 Pét. 2, 14. V. 7. Matt. 22, 21. Mark. 12, 17. Jak. 2, 8. 3 Mós. b. 19, 18. V. 8. Gal. 5, 14. 1. Tim. 1, 5. Jak. 2, 8. V. 9. 2 Mós. b. 20, 14. f. 3 Mós. b. 10, 18. Lúk. 10, 27. Jak. 2, 8. V. 10. 1 Kor. 13, 4. Gal. 5, 14. V. 11. 1 Kor. 15, 34. Ef. 5, 14. 1 Tess. 5, 6.

vér tókum trú. 12. Nóttin er umlidin, en dagurinn er kominn a), leggjum því af verk mirkursins og íklædumst b) herklædum ljóssins! 13. Látum oss c) framgánga eins og á degi sómasamlega, ekki d) í ófáti eda ofdrykkju, ekki í e) saurlifnadi né munadarlífi, ekki í f) þráttun né øfundsýki, 14. heldur g) íklædist Drottni Jesú Kristi! hafid og holdsins umsorgun ekki til ad æsa girndir.

## 14. Kapítulí.

Sá styrkari vægi til vid hinn veikari og þessi fordæmi ekki hinn; sérhvørr leiti dýrdar Guds, hvørjum vér egum allir reikníng ad standa; Enginn hneixli sinn bródur; eda gjöri neitt med ósablendni.

1. Takid ad ydur þann, sem breiskur er í trúnni, án dóma um hans meiníngar. 2. Þessi trúir alls megi neyta, en hinn, sem breiskur er, etur einasta maturtir. 3. Sá sem etur forsmái ekki þann, sem ekki etur, og hvørr, sem ekki etur, dæmi ekki þann, sem etur; því ad Gud hefir tekid hann ad sér. 4. Hvørr ertú, sem annarlegann þjón h) dæmir? sínum eginn Herra stendur hann eda fellur; en standa mun hann, því máttugur er Gud ad láta hann standa.

5. Þessi tekur dag frammyfir dag, en hinn dæmir eins um alla daga i). Sérhvørr veri í sinni meiníngu fullviss. 6. Sá, sem af deginum heldur, heldur af honum vegna Drottins k) og sá, sem ekki gjørir sér daga mun, gjørir hann ekki vegna Drottins. Sá sem etur (alla fædu) etur Drottni, því ad hann gjørir l) Gudi þakkir, sá sem ekki etur, hann etur ekki Drottni til dýrdar og gjørir Gudi þakkir. 7. Því ad enginn af oss lifir sjálfum sér og enginn deyr sjálfum sér; 8. því ad ef vér lifum, lifum vér Drottni, ef vér deyum, deyum vér Drottni; þar fyrir hvørt vér lifum eda deyum, þá m) erum vér Drottins; 9. því ad til þess er Kristur bædi dáinn og upp aptur risinn og endurlifnadur ad hann skyldi drottna bædi yfir daudum og lifendum. 10. En þú, hvad n) dæmir þú þinn bródur? ellegar og þú, hvad forsmáir þú þinn bródur? því ad o) allir munum vér látnir mæta fyrir dómstóli Krists. 11. Því ad skrifad er: svo sannarlega sem eg lifi, segir Drottinn, fyrir mér skulu øll kné sig beygja og allar túngur skulu vidurkénna Gud. 12. Þar fyrir mun sérhvørr af oss fyrir sjálfann sig Gudi reikníngsskap gjøra.

13. Þar fyrir látum oss ekki framar dæma hvørr annann, en dæmid p) heldur þad, ad enginn q) setji nokkra ásteitíngu edur hneixli fyrir sinn bródur. 14. Eg veit þad, og em þess fullviss í Drottni Jesú, ad ekkért er al-

V. 12. a. 1 Jóh. 2, 8. Ef. 5, 11. b. Ef. 6, 10. f. 1 Tess 5, 8. V. 13. c. Fil. 4, 8. 1 Tess. 4, 12. d. Lúk. 21, 34. 1 Tess. 5, 6. e. 1 Kor. 6, 9. Ef. 5, 5. f. Jak. 3, 14. V. 14. g. Gal. 3, 27. Kól. 3, 10. Opinb. b. 16, 15. Ordskv. b. 23, 20. Ef. 5, 29, 1 Pét. 2. 11. 1 Jóh. 2, 16. V. 1. Kap. 15, 1. 7. Post. g. b. 20, 35. 1 Kor. 8, 9. 11. 9, 12. 22. Gal. 6, 1. V. 2. 1 Mós. b. 1, 29. 9, 3. V. 3. Kól. 2, 16. V. 4. h. Ml: Guds. Jak. 4, 12. V. 5. i. eda: heldur alla daga jafna. Gal. 4, 10. Kól. 2. 16. V. 6. k. „vegna Drottins", adr: Gudi til dýrdar. 5 Mós. b. 8, 10. 1 Kor. 10, 31. 1 Tím. 4, 3. V. 7. 2 Kor. 5, 15. Gal. 2, 20. 1 Tess. 5, 10. 1 Pét. 4, 2. V. 8. m. 1 Kor. 6, 20. 1 Pét. 1, 19. V. 9. Post. g. b. 10, 42. 2 Kor. 5. 15. V. 10. n. Lúk. 6, 37. o. Matt. 25, 32. Post. g. b. 17, 31. 2 Kor. 5, 10. V. 11. Esa. 45, 23. V. 12. Kap. 2, 6. 16. Matt. 12, 36. V. 13. p. einsetjid ydur. q. Matt. 18, 7. 1 Kor. 10, 32. 2 Kor. 6, 3.

mennilegt í sjálfu sér, a) nema þeim, sem reikn-
ar eitthvad almennilegt, honum er þad almenni-
legt. 15. En ef þinn bródir sturlast fyrir fæd-
unnar sakir, þá gengur þú ekki framar eptir
kjærleikanum; tortýn honum ekki med fædslu
þinni, fyri hvørn Kristur er dáinn! 16. látid
ydar b) góda ekki komast í íllt ræmi, 17. því
ad Guds ríki er ekki matur og drykkur, c) held-
ur réttlæti og fridur og føgnudur í heiløgum
Anda; 18. því ad hvørr, sem þjónar Kristi
í þessu, hann er Gudi kjær og af mønnum
virdtur. 19. Látum oss þá stunda þad, sem
til fridarins þénar og sameiginlegrar uppbygg-
íngar! 20. Nidurbrjót ekki fyrir fædunnar
sakir verkid Guds! allt er ad sønnu hreint, en er
þó íllt þeim manni, sem etur vegna (géfinnar)
ásteitíngar; 21. þad er gott ad eta hvørki
kjøt, né drekka vín, né (gjøra) nokkud þad, er
þinn bródir steitir sig á eda hneixlast af eda
veikist vid.

22. Þú hefir d) trúna, haf hana hjá sjálf-
um þér fyri Gudi! sæll er sá, sem ei e) for-
dæmir sjálfann sig fyrir þad, sem hann held-
ur rétt vera, 23. en sá, sem er efablandinn
og etur þó, hann er sakfallinn; því hann neyt-
ir ekki eptir trú sinni, en allt þad, sem ekki er
eptir trú, er synd.

## 15. Kapítuli.

*Sérhvørr á ad lifa sínum náúnga til þókknunar ad Krists dæmi; Páll, sem heidinna Postuli, leyfir sér ad áminna Rómverja; segist vilja heimsækja þá þeim til uppbyggíngar; á medan skuli þeir bidja fyrir honum.*

1. En vér, sem styrkvir erum, egum ad
umbera breiskleika þeirra óstyrku og ekki ad
þókknast sjálfum oss; 2. fyrir því þókknist sér-
hvørr af oss náúnganum í því, sem gott er til
uppbyggíngar; 3. því ad einninn Kristur þókkn-
adist ekki sjálfum sér, heldur svo sem skrifad
er: lastyrdi þeirra, sem lastmæla þér, koma nid-
ur á mér. 4. Því ad, hvad helst, sem ádur
er skrifad, þad er ádur skrifad oss til lærdóms,
svo ad vér fyrir þolinmædina og huggun Ritn-
íinganna hefdum vonina. 5. En Gud þolin-
mædinnar og huggunarinnar géfi ydur samlynd-
um ad vera innbyrdis eptir Kristó Jesú, 6.
svo ad þér samhuga med einum munni dýrkid
Gud og Fødur Drottins vors Jesú Krists. 7.
Þar fyrir takid hvørr annann ad sér, svo sem
Kristur hefir tekid oss ad sér til dýrdar Gudi.
8. En eg segi Jesúm Krist hafa verid þjónustu-
mann umskurnarinnar, fyrir Guds sannleika sak-
ir, til ad stadfesta fyriheitin til fedranna; 9.
en ad heidíngjar skyldu dýrka Gud fyrir misk-
unina, svo sem skrifad er: fyrir þad skal eg
vegsama þig medal heidíngjanna og þínu nafni
lofsýngja. 10. Og aptur segir Ritníngin:
fagnid þér heidíngjar med hans fólki! og apt-
ur: 11. lofid Drottinn allir heidíngjar og prís-
id hann allir lýdir! 12. og enn aptur segir
Esajas: vera mun rótarkvistur Jessai, sá sem
upprís til ad stjórna heidíngjum, á hann munu
heidíngjar vona.

V. 14. a. ekkert (ætt) er í sjálfu sér óæti Matt. 15, 11. Post. g. b. 10, 15. Tít. 1. 15. V. 15. 1 Kor. 8, 11. 13. V. 16. b. ydar kristilegu frihéit, eda gódu trúarbrøgd. V. 17. c. 1 Kor. 8, 8. V. 19. Kap. 15, 2. V. 20. sbr. v. 14. V. 21. sbr. 1 Kor. 7, 1. 8, 13. V. 22. d. fulla sannfæríngu. e. ei þarf ad áfella sjálfann sig. V. 1. Kap. 14, 1. 1. Tess. 5, 14. V. 2. 1 Kor. 9, 19. 10, 24. 33. 13, 5. Kap. 14, 19. V. 3. Sálm. 69, 10. V. 4. Kap. 4, 23. 24. 2 Tím. 3, 16. V. 5. Kap. 12, 16. V. 6. Post. g. b. 1, 14. 4, 24. Ef. 1, 3. V. 8. Matt. 15, 24. umskurnarinnar þ. e. umskorinna nl. Gydínga. V. 9. Kap. 11, 30. 2 Sam. 22, 50. V. 10. 5 Mós. 32, 43. Sálm. 67, 5. V. 11. Sálm. 117, 1. V. 12. Esa. 11, 10.

13. En Gud vonarinnar fylli ydur øllum
fagnadi og fridi í því ad trúa, ad þér hafid
gnóglega von fyrir krapt heilags Anda.
14. En a) fullviss er eg, brædur mínir!
og svo sjálfur um ydur, ad þér erud sjálfir full-
ir gódgirni, uppfylltir af allri þekkíngu og megn-
ugir b) ad áminna hvørr annann. 15. En
samt hefi eg djarflega skrifad ydur, brædur mín-
ir! sumstadar svo sem þar ad auki minnandi
ydur á eptir þeirri nád, sem mér er af Gudi
géfin, 16. ad eg væri þjón Jesú Krists til heidíng-
janna, c) svo sem handtérandi Guds nádarbod-
skap, til þess ad offur d) heidíngjanna yrdi þókkn-
anlegt og helgad af heiløgum anda; 17. þar
fyrir hefi eg hrósun í Kristó Jesú í því, sem
Guds er; 18. því ad ekki mundi eg dirfast
ad tala um nokkud þad, er e) Kristur hafi
ei verkad fyrir mig, f) ad koma heidíngjum til
hlýdni g) 19. med ordi og verki fyrir krapt tákna
og stórmerkja, fyrir krapt Guds Anda, svo
ad eg frá Jerúsalem og allt um kríng inn til
Illyrikum hefi kunngjørt Krists nádarbodskap,
20. en svoleidis ad eg matti þad minn heidur,
ad boda nádarbodskapinn þar, hvar Kristur ekki
var (ádur) nefndur, svo ad ekki bygdi eg ofaná
annarlegann grundvøll; 21. heldur svo sem
skrifad er: þeir, hvørjum ekkért var um hann
sagt, skulu sjá, og þeir, ed ekki hafa heyrt,
skulu skilja.
22. Þar fyrir hefi eg og optlega hindrast
frá, ad koma til ydar; 23. en nú, af því
eg hefi eigi leingur rúm í þessum løndum, en
hefi haft laungun ad koma til ydar í mørg ár,
24. þá, þegar eg ferdast til Spánar, vona eg,
á ferd minni ad sjá ydur og verda af ydur
á veg leiddur þángad eptir þad, eg fyrst ad
nokkru leiti hefi fullsvalad mér hjá ydur; 25.
en nú fer eg til Jerúsalem þeim heiløgu til
þénustu; 26. því ad Masedoníu og Akkaju
hefir þókknast ad leggja saman nokkra gjøf til
handa fátækum af þeim heiløgu í Jerúsalem.
27. Þeim hefir þad þókknast, líka voru þeir
hinna skuldunautar, því fyrst heidíngjarnir eru
ordnir hluttakandi andlegra (gjæda) frá þeim,
þá eru þeir og skyldugir ad þjóna þeim í lík-
amlegum (efnum). 28. En þegar eg hefi þad
fullgjørt og innsiglad þeim þenna ávøxt, mun
eg fara um hjá ydur til Spánar. 29. En
eg veit ad þegar eg kém til ydar, mun eg
koma med fullri blessun Krists nádarbodskapar.
30. En eg h) beidi ydur, brædur! fyrir
Drottinn vorn Jesúm Krist og i) fyrir kjær-
leika andans, ad þér viljid k) med mér strída
í bænum til Guds fyrir mér, 31. ad eg frels-
adur verdi frá þeim vantrúudu í Júdeu og mitt
erindi til Jerúsalem verdi af þeim heiløgu vel
upptekid, 32. svo ad eg l) med føgnudi mætti,
m) ad vilja Guds, til ydar koma og endurnæra
mig ásamt med ydur. 33. En Gud fridarins
veri med øllum ydur, Amen!

---

V. 13. Kap. 14, 17. V. 14. a. 2 Pét. 1, 12. 1 Jóh. 2, 21. b. 1 Tess. 4, 9. 5, 11. V. 15. Kap. 1, 5. 12, 3. V. 16. c. Kap. 11, 13. 2 Tim. 1, 11. d. Kap. 12, 1. V. 17. 1 Kor. 1, 31. V. 18. e. Matt. 10, 19. 20. f. Kap. 16, 26. g. þ. e. til ad taka trú. V. 19. Mark. 16, 17. V. 20. 2 Kor. 10, 15. 16. V. 21. Es. 52, 15. V. 22. Kap. 1, 13. V. 23. 1 Tess. 3, 10. V. 24. 1 Kor. 16, 6. V. 25. Post. g. b. 19, 21. V. 26. 1 Kor. 16, 1. 2 Kor. 8, 1. Gal. 2, 10. V. 27. Kap. 11, 17. 1 Kor. 9, 11. Gal. 6, 6. V. 28. þ. e. er trúlega búinn ad afhenda þeim gjøfina. V. 29. Kap. 1, 11. V. 30. h. 2 Tess. 3, 1. 2. i. Fil. 2, 1. k. Fil. 1, 27. Kól. 4, 12. Ef. 6, 18. 19. V. 31. 2 Tess. 3, 2. V. 32. Kap. 1, 10. 1 Kor. 4, 19. m. Jak. 4, 15. V. 33. Kap. 16, 20. 1 Kor. 14, 33. 2 Kor. 13, 1.

## 16. Kapituli.

Páll bidur Phœbe virktar og sendir kvedju sína morg-
um uafngreindum kristnum og heila Søfnudinum;
varar vid villu mønnum; ber kvedju frá ýmsum;
endar bréfid med ósk fyrir Søfnudinum og lofgjørd
til Guds.

1. Eg fel ydur á hendur Pheben systur
vora, hvørr ed er þjónustukvinna safnadarins
í Kenkreis, 2. ad þér medtakid hana í Drottni,
svo sem heiløgum hæfir og lidsinnid henni í
hvørjum helst hlut, sem hún ydar vidþarf,
því hún hefir margra adstod verid og líka
mín. 3. Heilsid Priskillu og Akvilas mínum
verkanautum í Drottni, 4. (hvørr ed fyrir
mitt líf hafa sínum hálsi vogad) hvørjum eg ekki
einn má þakkir gjalda, heldur og allir safnadir
heidíngjanna; 5. heilsid einninn þeim safn-
adi, sem er í þeirra húsi! heilsid Epenetus
mínum elskulega, hvørr ed er frumgródi Akka-
ju a) Kristi til handa! 6. heilsid Maríu, sem
mikid hefir erfidad fyrir oss! 7. heilsid And-
ronikus og Júnían, ættmønnum mínum og
sambandíngjum, hvørjir nafnkénndir eru medal
Postulanna og ádur enn eg urdu Krists menn!
8. heilsid Ampleas mínum elskulega í Drottni!
9. heilsid Urbanus vorum verkanaut í Kristó
og Stakkys mínum elskulega! 10. heilsid A-
pelles, sem er reyndur gódur kristinn! 11. heilsid
fólki Aristobuli! heilsid Herodion frænda mín-
um! heilsid þeim af fólki Narkissi, sem eru
Drottins! 12. heilsid Tryfenu og Tryfósu,
sem hafa erfidad í Drottni! heilsid Persis
hinni elskulegu, hvøred mikid hefir erfidad í
Drottni! 13. heilsid Rúfus enum útvalda í
Drottni og módur hans og minni! 14. heilsid
Asynkritus, Flegon, Hermas, Patróbas, Herm-
es og brædrunum, sem hjá þeim eru! 15.
heilsid Filólógus og Júlías, Nereus og systur
hans og Olympu og øllum heiløgum sem
med þeim eru! 16. Heilsist innbyrdis med
heiløgum kossi! ydur heilsa Krists safnadir!

17. En eg áminni ydur, brædur! ad þér
varid ydur á þeim, er valda sundurþykkju og
hneixli á móti þeim lærdómi, sem ydur hefir
verid kénndur og ad þér sneidid ydur hjá þeim;
18. því ad þesshNone menn þjóna ekki Drottni
vorum Jesú Kristi, heldur sínum maga og med
blídmælum og fagurgala tæla þeir hjørtu
meinlausra. 19. Af því ydar hlýdni er al-
kunnug ordin, þá gledst eg af ydur, en eg vil
ad þér séud vitrir til ens góda, en einfaldir
til ens illa. 20. En Gud fridarins mun
snarlega sundurtroda Satan undir ydar fætur.
Nádin Drottins vors Jesú Krists sé med yd-
ur, Amen!

21. Ydur heilsa: Tímóteus minn samþjón,
Lúkíus og Jason og Sósípater, ættmenn mín-
ir. 22. Eg Tertíus, sem bréfid hefi skrifad,
heilsa ydur í Drottni. 23. Ydur heilsar Ga-
jus húsbóndi minn og heila safnadarins. Yd-
ur heilsar Erastus, gjaldkéri borgarinnar og
Kvartus bródir. 24. Nádin Drottins vors
Jesú Krists sé med ydur øllum, Amen!

25. En honum, sem máttugur er ydur ad

---

V. 2. 3 Jóh. v. 6, V. 3. Post. g. b. 18, 2. 26. 2 Tím. 4, 19. V. 4. þ. e. géfid sig í dandans hættu. V. 5. a. adr: Asíu 1. Kor. 16, 15. 19. Kól. 4, 15. V, 16. 1 Kor. 16, 20. 2 Kor. 13, 12. V. 17. Matt, 7, 15. 1 Jóh. 4, 1. Fil. 3, 2. Kól. 2, 8. 18. Matt. 18, 8. 18, 17. 1 Kor. 5, 9. 11. 2 Tess. 3. 6. 14. Tít. 3, 10. 2 Jóh. v. 10. V. 18. Fil. 3, 19. 2 Pét. 2. 3. Esek. 13, 18. V. 19. Kap. 1, 8. Jer. 4, 22. 1 Kor. 14, 20. V. 20. Kap. 15, 33. Sálm. 91, 13. V. 21. Post. g. b. 16, 1. 2. Fil. 2, 19, V. 23. 1 Kor. 1, 14. 3 Jóh. v. 1. Post. g. b. 19, 22. V. 24. v. 20. 1. Kor. 16, 23. 1 Tess. 5, 28. V, 25, Ef. 3, 18. Ef. 1, 9.

styrkja eptir mínu Evangelíó og Jesú Krists
prédikun, eptir auglýsíngu þess leyndardóms,
sem um eilífdar tíma hefir í þögn legid, 26. en var
opinberadur fyrir spámannlegar Ritníngar og
nú eptir skipun eilífs Guds til hlýdni trúar-
innar medal allra heidíngja kunngjørdur. 27.
Einum Gudi sé, fyrir Jesúm Krist, dýrd
um aldir, Amen!

# S. Páls Fyrri Pistill til Korintu-manna.

## 1. Kapituli.

Páll óskar þeim kristnu í Korintu Guds nádar. Þakkar Gudi fyrir, ad Krists lærdómur hafi fest rætur hjá þeim og vonar, ad þekkíng hans og hlýdni vid hann muni fara vaxandi. Lastar ósamlyndi þeirra; varar þá vid ad láta sig af heimsins vitríngum fleka frá Krists einfalda lærdómi, sem heiminum ad sönnu þyki heimskulegur, en innihaldi þó gudlegann vísdóm og krapt. Gud hafi ena lítilmótlegu útvalid, svo menn verdi allt ad tilskrifa Guds nád.

1. Páll, kalladur, ad Guds vilja, til ad
vera Postuli Jesú Krists og bródir Sóstenes,
2. óskar nádar og fridar af Gudi vorum Födur
Drottni Jesú Kristi, Guds Söfnudi í Korintu-
borg, ydur sem fyrir Jésúm Krist erud helgadir,
kalladir og heilagir a), 3. ásamt øllum þeim
hvar helst, sem þeir eru, sem ákalla nafn Jesú
Krists, vors og þeirra Drottinn.
4. Eg þakka Gudi mínum jafnan ydar vegna,
fyrir þá Guds nád, sem ydur er géfin fyrir
Jesúm Krist; 5. því ad þér erud fyrir hann í
øllu audgadir í allskonar lærdómi og þekkíngu,
6. med því lærdómur Krists er ordinn hjá yd-
ur rótfestur, 7. og þad svo, ad þér ekki erud
varhluta af nokkurri nádargjøf og væntid opin-
berunar Drottins vors Jesú Krists, 8. er og
mun styrkja ydur allt til enda, svo ad þér séud
óstraffanlegir á degi Drottins vors Jesú Krists.
9. Trúr er sá Gud, sem hefir kallad ydur til
samfélags síns Sonar, Drottins vors Jesú Krists.
10. Eg áminni ydur, Brædur! í nafni Drott-
ins vors Jesú Krists, ad þér séud allir á einu
máli og ekki séu flokkadrættir ydar á milli, held-
ur séud samlyndir og samdóma; 11. því mér
er sagt af heimilismønnum Klóe, Brædur mín-
ir! ad deilur séu ydar á milli. 12. Eg meina
þetta, ad einn af ydur segir: eg er Páls b);
annar: eg er Apollós c); þridji: eg er Kéfas-
ar d); fjórdi: eg er sjálfs Krists, 13. Er þá
búid ad skipta Kristi í sundur? mun Páll hafa
verid krossfestur ydar vegna? eda erud þér
skírdir í Páls nafni? 14. Gudi sé lof! ad eg
engann ydar hefi skírt nema Krispus og Kajus,
15. svo ad enginn géti sagt: ad eg hafi skírt
í mínu nafni. 16. Eg skírdi líka Stefáns heim-
ilismenn, fleiri veit eg ekki til ad eg hafi skírt;
17. því ekki sendi Kristur mig til ad skíra,
heldur til ad kénna, ekki med ordspeki, svo ad
lærdómurinn um hinn krossfesta missti ekki krapt
sinn. 18. Lærdómurinn um hinn krossfesta er
þeim heimska, er sælunnar missa, en oss, sem

V. 26. 2 Tím. 1, 10. Tít. 1, 3. Kap. 1, 5. V. 27. 1 Tím. 1, 17. 1 Tím. 6, 16. Hebr. 13, 21. V. 2. a. þ. e. kristnadir og þarvid Gudi helgadir. V. 7. Kap. 12, 4—11. 2 Kor. 8, 7. V. 9. 1 Kor. 10, 13. 2 Tess. 3, 3. látid ydur fá hlutdeild í hans nádargjædum. V. 12. b. Nl. Lærisveinn. c. Post. gb. 18, 24. d. Jóh. 1, 42. sbr. Matt. 16, 18. V. 18. 2 Tess. 2, 10. 2 Tim. 4, 4. Róm. 1, 16. 1 Kor. 1, 24.

hólpnir erum, gudlegur kraptur; 19. því skrif-
ad er: eg vil ad engu gjöra Spekínganna speki
og ónýta viturleik hinna vitru. 20. Hvar
stendur nú Spekíngurinn? hvar hinn løglærdi?
hvar þessarar aldar vitríngur? hefir Gud ekki
gjørt speki þessa heims ad heimsku? 21. Því
þared heimurinn med sinni Guds speki ekki þekkti
Gud af spekinni, þá þóknadist Gudi ad gjöra
þá med einfaldlegri kénníngu hólpna, er henni
vildu trúa. 22. Med því Gydíngar krefja tákna
og Grískir leita ad speki, en vér bodum Krist
þann hinn krossfesta; 23. svo er Gydíngum
vor kénníng til ásteitíngar, en heidíngjum sýnist
hún vera heimska. 24. Þeim þarámót, sem
kalladir eru, bædi Gydíngum og Grikkjum,
prédikum vér Krist krapt Guds og speki; 25.
því þad fávíslega Guds er mønnum vitrara
og þad veika Guds er mønnum krøptugra.

26. Lítid til ydar køllunar, brædur mínir!
margir ydar eru ekki, eptir manna áliti, spekíng-
ar, ekki margir voldugir, ekki margir stórættadir;
heldur hefir Gud útvalid þá fávísu heimsins, 27.
a) svo hinum vitru gjørdist kinnrodi og þá ena lít-
ilmótlegu hefir Gud útvalid sér, svo ad þeim
voldugu gjørdist kinnrodi; 28. þá ena ógøf-
ugu í heiminum og fyrirlitnu hefir Gud út-
valid og þá, sem ekkért þókti ivarid, til þess
ad gjøra ekkért úr þeim, sem nokkud þókti í-
varid, 29. svo ad enginn skuli hrósa sér fyrir
Gudi. 30. Honum er þad ad þakka, ad þér
erud komnir í samfélag vid Jesúm Krist, sem
oss er ordinn speki frá Gudi til réttlætis, helg-
unar og endurlausnar; 31. því skrifad er: sá,
sem hrósar sér, hann hrósar sér af Gudi.

## 2. Kapítuli.

Páll forsvarar kristnibod sitt; segist málsnildarlaust hafa kénnt krossins lærdóm, svo hans kraptur tilskrifist lærdóminum einum, sem innihaldi þvílíkann vísdóm, sem heimsins vitríngum hafi verid of hár, nema þeir upplýstust af lærdóminum sjálfum.

1. Og þegar eg kom til ydar, brædur! og
bodadi ydur vitnisburdinn Guds, kom eg med
enga frammúrskarandi ordsnild edur speki; 2.
því eg ásetti mér ad láta ekki á því bera ad
eg vissi annäd enn lærdóminn um Jesúm
Krist og hann krossfestann. 3. Med litilæti
og ótta og mikilli hrædslu var eg med ydur.
4. Minn lærdómur og kénníng var innifalinn
ekki í fortølum spaklegrar málsnildar, heldur í
auglýsíngu anda og kraptar, 5. svo ydar trú
væri ekki bygd á mannlegri speki, heldur á Guds
krapti.

6. Vér tølum ad sønnu speki medal þeirra
fullkomnu, en þó ekki speki þessarar aldar, ed-
ur þessarar aldar høfdíngja, úr hvørjum lítid
mun verda, 7. heldur kénnum vér speki Guds
leyndarráds, er ádur var hulin, hvørja Gud
hafdi frá eilífd fyrirhugad oss til dýrdar b),
8. Af þessari speki vissi enginn þessarar ald-
ar høfdíngja, því ef þeir hefdu þekkt hana,
hefdu þeir ekki krossfest Drottinn dýrdarinnar,
9. heldur c), eins og skrifad stendur: auga
hefir ekki sjed, ekki eyra heyrt og í einkis huga
komid, hvad Gud hefir þeim fyrirbúid, sem
hann elska. 10. En oss hefir Gud opin-
berad hana fyrir sinn anda, því andinn

V. 19. Es. 29, 14. V. 20. Róm. 1, 21—23. V. 23. Post. gb. 17, 18—21. V. 27. a. þ. e. þá sem álitnir voru fávísir. Flestir af þeim, sem fyrst tóku kristni voru ólærdir menn. V. 31. Jer. 9, 23. V. 2. Gal. 6, 14. V. 4. lýsti því ad hann hefdi sín upptøk frá heiløgum anda. og þessvegna gudlegann krapt Jóh. 6, 63. V. 5. 1 Tess. 1, 5. V. 6. Jak. 3, 15. Kap. 1, 20. 28. V. 7. b. eilífrar farsældar. V. 9. c. nl. kénnum vér. Esa. 64, 3. samanb. vid 65, 17.

ransakar allt og svo Guds leyndar-ráð. 11.
Hvørr veit hvad í manninum býr, nema manns-
ins andi, sem í honum er; svo veit eínginn hvad
í Gudi býr, nema Guds Andi. 12. Vér høf-
um ekki medtekid heimsins anda, heldur þann
anda, sem frá Gudi er, svo vér þekkjum þá nád,
sem hann hefir oss veitta. 13. Þetta kénnum vér
ekki med ordum, sem mannleg speki hefir oss
kénnt, heldur med ordum, er andinn hefir med-
deilt oss og útlistum þad andlega med andleg-
um ordum fyrir andlega sinnudum. 14. En
holdlega sinnadur madur skilur ekki þad and-
lega, þad er heimska fyrir honum og hann gét-
ur ekki skilid þad, því þad hlýtur andlega ad
dæmast. 15. En hinn andlega sinnadi dæm-
ir um allt, en verdur af engum dæmdur; 16.
„því hvørr hefir þekkt Drottins sinni, ad hann
géti frædt hann"? en vér høfum Krists sinni.

## 3. Kapítuli.

Postulinn sýnir ad Korintumenn hafi einga orsøk til ad stæra sig af hvad vel kristnir þeir séu. Flokka-dráttur þeirra á milli lýsir því, og ad þeir byggja um of uppá manna lærdóm, sem þó eru ekki annad enn Guds þjónar; því ad Kristur er grundvøllurinn, sem hvørr Kénnari á ad byggja ofaná, sem hann hefir vit til; en ekki er sama hvornig ofaná er byggt og hættulegt ad reida sig á annara manna vit, ad menn ekki spilli Guds musteri.

1. Sannlega gat eg ekki talad vid ydur,
brædur mínir! svo sem andlega, heldur svo sem
holdlega, svo sem børn í Krists trúar þekkíngu.
2. Eg gaf ydur mjólk, en ekki mat, því þér
þoldud hann ekki; já, þér þolid hann ekki enn,
því enn þá erud þér holdlegir; 3. metníngur,
deilur og tvídrægni eru á medal ydar. Erud
þér þá ekki holdlegir og hegdid ydur eptir al-
menníngs sid? 4. Þegar einn segir: eg er
Páls; en annar: eg er Apollós, erud þér
þá ekki holdlegir? 5. Því hvad er Páll,
hvad er Apolló annad enn þjónar, sem
hafa leidt ydur til kristni, hvørr eptir því, sem
Drottinn hefir veitt hvørjum fyrir sig? 6. eg
plantadi, Apolló vøkvadi, en Gud hefir géfid
frjófgunina; 7. svo ad ekki er sá mikill, sem
grédursetur edur vøkvar, heldur Gud, sem frjófg-
unina géfur. 8. Sá, sem plantar, og sá, sem
vøkvar, eru eitt og hvørr þeirra mun fá þau
laun, sem hann vinnur til. 9. Vér erum Guds
þjónar, þér erud Guds akur, Guds hús. 10.
Sem skynsamur byggíngar meistari hefi eg grund-
vøllinn lagt, eptir þeirri nád, sem mér er af
Gudi géfin, en annar hefir byggt ofaná; hvørr
einn hafi gát á hvørninn hann gjørir þad.
11. Enginn gétur annann grundvøll lagt enn
þann, sem lagdur er, sem er Jesús Kristur. 12.
Byggi menn ofaná þenna grundvøll gull, silf-
ur, dýrmæta steina, tré, hey, hálm, 13. þá mun
verda opinbert hvílíkt hvørs eins verk er, tídin
mun gjøra þad augljóst, eldurinn mun opinbera
þad, hann mun prófa hvílíkt hvørs eins verk
er. 14. Ef þad stendur, sem madur hefir of-
aná byggt, mun hann fá laun; 15. en brenni
þad upp, bídur hann þar af skada, sjálfur mun
hann komast af, en þó líka sem úr eldi. 16.
Vitid þér ekki ad þér erud Guds musteri og ad
Guds Andi býr í ydur? 17. hvørr, sem skémm-
ir Guds musteri, þann mun Gud straffa, því

V. 13. V. 1. 4. Gal. 1, 11. 12. V. 14. og 15. adrir géta ekki um þad rétt dæmt enn þeir, sem komnir eru ad réttum skilníngi á Krists lærdómi og hjá hvørjum kristilegt hugarfar er drottnandi. Þvílíkir géta rétt dæmt um allt sem kristindómi vidkémur. V. 16. Es. 40, 13. Job. 15, 8. Róm. 11, 34. V. 2. 1 Pét. 2, 2. Hebr. 5, 12. 13. V. 3. Kap. 1, 10. 11. V. 4. Kap. 1, 12. Post. g. b. 18, 24. V. 8. Matt. 16, 27. V. 10. Kap. 15. 10. V. 11. Es. 2, 20. 21. V. 13. Es. 48, 10. 1 Pét. 4, 12. V. 16. Ad vera musteri eins, er ad láta sér oldúngis stjórna af honum. Matt. 12, 44. sbr. vid Róm. 7, 17—20. 1 Kor. 6, 19. 2 Kor. 6, 16.

ed Guds musteri er heilagt og þetta musteri erud þér. 18. Enginn dragi sig sjálfann á tálar; ef nokkurr á medal ydar þykist vera vitríngur á þessari øld, hann verdi fávís, a) svo hann verdi vís; 19. því speki þessa heims er heimska hjá Gudi; því svo stendur skrifad: hann grípur þá vitru í þeirra slægd; 20. og á ødrum stad: Drottinn þekkir hugsanir hinna vitru, ad þær eru hégómlegar. 21. Enginn stæri sig því af mønnum, 22. því allt er ydvart hvørt heldur þad er Páll edur Apolló, edur Kefas, edur heimur, edur líf, eda daudi, þad yfirstandandi edur tilkomandi. 23. Allt er ydvart; þér erud Krists, en Kristur er Guds.

## 4. Kapítuli.

*Kénnarar eru Guds rádsmenn, sem ega honum reikníng ad standa, en ekki hvørjum, sem lastar þá. Páll straffar þá, sem vilja ríra hans Postula embætti og taka sjálfhælna kénnara framyfir hann. Áminnir ad breyta eptir sér og fordast hroka.*

1. Hvørr einn áliti oss, sem Krists þjóna og umbodsmenn Guds leyndardóma. 2. En þad krefst af sérhvørjum umbodsmanni, ad hann sé trúr. 3. Þad er mér fyrir minnstu, hvørn dóm þér edur adrir leggja á mig; eg dæmi mig ekki sjálfur. 4. Einkis ílls er eg mér ad sønnu medvitandi; þó vil eg ekki þar fyrir segja mig síknsaka; Drottinn er sá sem dæmir mig. 5. Dæmid því ekki fyri tímann fyrri enn Drottinn kémur, sem í ljós mun leida þad í mirkrum var hulid og opinberar gjøra hjartnanna hugsanir og þá mun sérhvørr fá sín laun af Gudi. 6. Þetta heimfæri eg ydar vegna uppá mig og Apolló, ad þér af okkur gétid lært, ad hugsa ekki hærra enn skrifad er, ad enginn stæri sig af nokkrum manni gégn ødrum b).

7. Hvør hefir gétid þér yfirburdi yfir adra? edur hvad hefir þú þad, þú ekki hefir þegid? en ef ad þú hefir þegid þad, því hrósar þú þér þá, eins og þú hefdir þad ekki þegid? 8. Þér erud þá þegar mettir ordnir, þér erud ordnir audugir, þér ríkid án mín. Eg vildi ad svo væri, því þá gæti eg ríkt med ydur. 9. Mér sýnist sem Gud láti oss Postulana vera audvyrdilegasta allra manna, svo sem ætlada til dauda, því vér erum ordnir skodunarspil heiminum, Englum og mønnum. 10. Vér høldumst, heimskir vegna Krists, en þér velfródir í Krists (trú) c) vér veikir, þér styrkvir, þér erud virdtir, vér vanvyrdtir. 11. Allt til þessarar stundar lídum vér húngur, þorsta, klædleysi og høgg og høfum engann samastad. 12. Vér vinnum med vorum egin høndum; þá oss er óskad ílls, óskum vér góds; þá vér erum ofsóktir umberum vér þad. 13. Þá vér erum lastadir áminnum vér. Vér erum ordnir eins og sorp veraldar og afhrak allra allt til þessa tíma. 14. Þetta skrifa eg ekki til ad gjøra ydur kinnroda, heldur áminni eg ydur, svo sem elskuleg børn; 15. því þótt þér hafid ótal Lærimeistara í kristilegri trú, þá hafid þér samt ekki marga fedur, því eg hefi gétid ydur til kristilegrar trúar med minni kénníngu. 16. Eg bid ydur því: breytid eptir mér! 17. Þessvegna sendi eg til ydar Tímóteum, minn elskulegann son og trúann í Drottins þjónustu; hann mun segja ydur hvørnig eg rek Krists erindi allstadar þar, sem eg kénni kristni. 18. En nokkrir eru ordnir hródugir yfir því, ad eg aldrei muni

---

V. 18. a. þ. e. hætti ad halda þad fyrir speki, sem þessi øld heldur spekt. V. 19. Job. 5, 13. V 20. Sálm. 94, 11. V. 22. Allt á ad vera ydur til góds. Róm. 8, 38. 39. V. 1. Matt. 18, 18. Kól. 1, 23. V. 6. b. ad hann hafi haft þenna eda hinn lærimeistara í kristilegri trú. V. 10 c. nl. vegna þess þér erud kjænir i ad sameina veraldlega speki vid Krists lærdóm. sbr. Kap. 2, 1—4.

koma til ydar; 19. en eg mun brádum koma
til ydar, ef Drottinn vill og þá mun eg reyna,
ekki ord sjálfbyrgínganna, heldur krapt; 20.
því Guds ríki er ekki fólgid í ordum, heldur
krapti. 21. Hvad viljid þér? á eg ad koma
til ydar med vendi, edur med kjærleika og í
hógværum anda?

## 5. Kapítuli.

Postulinn varar vid lauslæti og frillulífnadi.

1. Alræmt er ad lauslæti sé hjá ydur drottn-
andi og þvílíkt lauslæti, ad ekki eru dæmi til
slíks medal heidinna, ad nokkurr skal halda
vid födur síns egin konu. 2. Og þó erud þér
upphrokadir og látid ydur ekki miklu heldur
vera annt um þad, ad sá, sem þetta verk hefir
drýgt, rekist burt frá ydur. 3. Eg fyrir mitt
leiti, þótt eg sé fráverandi ad líkamanum til,
samt nálægur í huga, 4. hefi í nafni Drott-
ins vors Jesú Krists og eptir þeim myndug-
leika, sem hann hefir mér géfid, svo sem ná-
lægur úrskurdad (ad ykkur samankölludum ásamt
mínum anda) 5. ad géfa þann, er þvílíkt
hefir drýgt, í Satans vald til deydíngar hold-
inu, svo sálin mætti hólpin verda á degi Drott-
ins vors Jesú Krists. 6. Ekki er ydar stæri-
læti fallegt! vitid þér ekki ad lítid súrdeig gét-
ur sýrt allt deigid? 7. takid burt hid gamla
súrdeigid, svo ad þér framvegis gétid verid nýtt
deig, eins og þér nú erud ósýrdir; því vort
Páskalamb er og vor vegna slátrad, nefnilega:
Kristur. 8. Höldum því hátíd, ekki med hinu
gamla súrdeiginu, edur med súrdeigi vondskunn-
ar og prettvísinnar, heldur med ósýrdu braudi
hreinskilninnar og sannleikans. 9. Eg skrifa
ydur í bréfi mínu ad þér skyldud ekki hafa
afskipti af frillulífis=mönnum; 10. en eg meinti
ölbúngis ekki til frillulífis manna út um heim-
inn, edur til ásælinna, ránsmanna, edur skurd-
goda dýrkara þar, því þá yrdud þér ad
fara út úr heiminum. 11. En nú skrifa eg
ydur, ad þér ekki skulid samlaga ydur þeim bród-
ur, sem er frillulífis madur, edur ásælinn, ed-
ur skurdgoda dýrkari, edur ordhákur, edur drykk-
jumadur edur ránsmadur; med þvílíkum skul-
ud þér ekki hafa mötuneyti. 12. Því hvad
kémur þad mér vid ad dæma um þá, sem fyr-
ir utan söfnudinn eru? því dæmid þér ekki
þá, sem í söfnudinum eru? Er hina, sem fyr-
ir utan hann eru, mun Gud dæma. Rekid
þann vonda burt frá ydur.

## 6. Kapítuli.

Lastar, ad kleymumál kristinna á milli borin séu und-
ir heidna dómendur og yfir höfud, ad lestir skuli
vidgángast medal kristinna. Straffar þá, sem taka
lauslæti í forsvar.

1. Hvörr ydar gétur fengid þad af sér, ef
hann hefir mál ödrum á móti, ad láta þad
koma undir dóm heidinna, en ekki heldur
undir dóm heilagra a)? 2. edur vitid þér ekki
ad þeir heilögu munu heiminn dæma b)? en ef
heimurinn verdur af ydur dæmdur, erud þér
þá óverdugir ad dæma í minnstu málum? 3.
Vitid þér ekki ad vér munum Englana dæma,
því þá ekki þad tímanlega! 4. Ef ad þér
hafid mál um þad tímanlega, þá setjid þér þá
c) til dómara, sem í fyrirlitníngu eru í söfnud-
inum. 5. Þetta segi eg ydur til blygdunar.
Er þá ekki einn einasti svo vitur á medal yd-
ar, ad hann géti skorid úr málum milli brædra
sinna? 6. heldur gengur bródir í rétt á móti
bródur og þad fyrir dómstóli vantrúadra.
7. Yfir höfud ad tala er þad ydur til smánar,

V. 1. Kap. 5, 5. 9. V. 5. Þ. e. útiloka úr söfnudinum, 1 Tím. 1, 20. Róm. 6, 6. V. 7. 2 Mós. 6. 12. 15—20. V. 1. a. Þ. e. kristinna. V. 2. b. Matt. 19, 28. Lúk. 22, 29—30. sbr. Dan. 7, 22. V. 4. c. nl. heldur.

ad þér hafid lagadeilur hvørr vid annann; 8. því lídid þér ekki heldur órétt og því látid þér ekki heldur ásælast ydur? en þér gjørid sjálfir órétt og ásælist adra og þad ydar brædur. 9. Vitid þér ekki ad óréttvísir munu ekki Guds ríki erfa? dragid ydur ekki sjálfa á tálar; hvørki frillu-lífismenn, né skurdgoda-dýrkarar, né hórdómsmenn, né mannbleydur, edur þeir, sem leggjast med karlmønnum, 10. né þjófar, né ásælnir, né drykkju-menn, né ordhákar, né ráns-menn, munu Guds ríki erfa. 11. Þvílíkir voru nokkrir af ydur ádur, en nú erud þér þvegnir, helgadir og réttlættir fyrir Jesúm Krist og Guds vors Anda.

12. Allt er mér leyfilegt, en allt er samt ekki þénanlegt. Allt er mér leyfilegt, en eg má ekki láta nokkurn hlut fá vald yfir mér. 13. Fædan er fyrir magann og maginn fyrir fæduna, en Gud mun gjøra enda á bædi henni og honum. 14. En líkaminn er ekki (géfinn) til frillulífis, heldur Drottni til þjónustu, og Drottinn er fyrir líkamann; því Gud, sem uppvakti Drottinn, mun og uppvekja oss fyrir krapt sinn. 15. Vitid þér ekki, ad ydar líkamir eru Krists limir? skyldi eg taka Krists limi og gjøra þá ad limum skjækunnar? fjærri sé því! 16. edur vitid þér ekki, ad sá, sem samlagar sig skjækunni, er einn líkami med henni? því þau tvø munu verda einn líkami, segir Ritníngin. 17. En sá, sem samlagar sig Drottni, er einn andi med honum. 18. Fordist frillulifnad! sérhvørr ønnur synd, sem madurinn drýgir, er líkamanum óvidkomandi, en sá, sem saurlífi drýgir, syndgar á móti sínum egin líkama. 19. Edur vitid þér ekki ad ydar líkami er musteri þess heilaga Anda, sem í ydur býr, hvørn þér hafid frá Gudi og ad þér erud ekki ydar eginn herrar; 20. því fyrir verd erud þér keyptir; vegsamid því Gud med ydar líkama.

## 7. Kapítuli.

Hvørninn hjón skuli hegda sér hvørt vid annad. Rædur meyum og ekkjum ad lifa ógiptum. Bannar hjónaskilnad. Hvørr lifi í því standi, sem hann er kalladur. Orsakir, hvar fyrir ógipt stand sé betra.

1. Hvad þad áhrærir, er þér skrifudud mér um, þá er þad gott ad vera ekki vid konu kénndur; 2. en fyrir frillulífis sakir, þá haldi hvørr vid sína egin-konu og hvør kona vid sinn eginn mann. 3. Madurinn gæti sinnar skyldu vid konuna og sømuleidis konan vid manninn. 4. Konan hefir ekki vald yfir sínum eginn líkama, heldur madurinn; sømuleidis hefir madurinn ekki vald yfir sínum líkama, heldur konan. 5. Hvørugt haldi sig frá ødru, néma þad skyldi vera eptir samkomulagi um tíma, svo þér gétid stundad ydar bænahald; en takid sídan saman aptur, svo ad Satan ekki freisti ydar vegna ydar bindindisleysis. 6. Þetta segi eg af vorkunsemi, en býd þad ekki; 7. því eg vildi ad allir væru eins og eg, en hvørr hefir sína gáfu af Gudi, einn þessa, annar hina.

8. Ógiptum og ekkjum segi eg, ad þeim er betra ad vera eins og eg er; 9. en vanti þær bindindi, þá giptist þær; því betra er ad giptast enn brenna (af losta).

V. 9. 3 Mós. b. 18, 22. Róm. 1, 27. V. 11. Efes. 2, 2. f. Tít. 3, 3. V. 12. Kap. 10, 23. f. V. 13. Róm. 14, 15. 17. V. 14. Róm. 6, 5. 8. sbr. 1 Kor. 15, 13. ff. V. 15. Efes. 4, 12. 15. V. 16. 1 Mós. b. 2, 24. Matt. 19, 5. V. 17. Jóh. 17, 21. V. 19. Kap. 3, 16. Róm. 8, 14. 15. sbr. vid 8, 2. 5. 6. 9. V. 20. Tít. 2, 14. 1 Pét. 1, 18. 19. Efes. 1, 7. Post. gb. 20, 28. V. 1. 1 Kor. 7, 26. sbr. vid 1 Mós. b. 2, 18. V. 7. Matt. 19, 12. 1. Kor. 12, 11. V. 9. 1 Tím. 5, 14.

10. Þeim giptu ſkipa eg, þó ekki eg, held-
ur Drottinn, ad konan ſkuli ekki ſkilja vid
mann ſinn; 11. en ef hún er ſkilin vid hann,
þá ſé hún ógipt, ellegar taki aptur ſaman vid
manninn; ekki heldur ſkilji madurinn vid kon-
una. 12. Hinum ødrum býd eg, ekki Drott-
inn, ad ef nokkur bródir á vantrúada konu og
hún vill búa ſaman vid hann, þá ſkilji hann
ſig ekki vid hana, 13. og ef kona nokkur á
vantrúadann mann og hann vill búa ſaman
vid hana, þá ſkilji hún ekki vid hann. 14.
Sá vantrúadi madur helgaſt af konunni og
hin vantrúada kona helgaſt af manninum, ann-
ars væru børn ydar vanheiløg, en nú eru þau
heiløg. 15. En ef ad hinn vantrúadi vill
ſkilja vid konuna, þá gjøri hann þad, því þeg-
ar ſvo á ſtendur, þá er enginn bródir eda ſyſt-
ir þrælbundinn, en Gud hefir kallad oſs til
fridar. 16. Hvad veitſtú, kona! nema þú
gétir gjørt manninn hólpinn, edur hvad veitſt
þú, madur! nema þú gétir hólpna gjørt kon-
una? þad veitſtu ekki. 17. Sérhvørr veri í
því áſtandi, ſem Drottinn hefir úthlutad hon-
um, ſérhvørr eins og hann var þá Gud kall-
adi hann; ſvo býd eg í øllum ſøfnudum. 18.
Ef hann var umſkorinn þegar hann var kall-
adur, þá dragi hann ekki yfirhúdina yfir apt-
ur; ef hann þá var óumſkorinn, láti hann
ſig ekki umſkéra. 19. Umſkurnin er ekkért og
yfirhúdin ekkért, heldur vardveitſla Guds bod-
orda. 20. Sérhvørr veri í þeirri ſtétt, ſem
hann var í, þegar hann var kalladur. 21.
Hafir þú verid þræll, þá þú varſt kalladur,
láttú þig einu gylda, en ef þú gétur frjáls ord-
id, þá vel þad heldur. 22. Sá, ſem var þræll
þá hann var kalladur, er Drottins frelſíngi,
ſá, ſem þá var frjáls, er Kriſts þræll. 23.
Þér érud dýru verdi keyptir, verid ekki manna
þrælar. 24. Gódir brædur! ſérhvørr þjóni
Gudi í þeirri ſtétt, ſem hann er í kalladur.
25. En um meyar hefi eg ekkért bodord af
Drottni, en ſegi mína meiníngu ſvo ſem ſá,
er þá miſkun hefir ødlaſt af Gudi ad vera
trúr. 26. Þad er þá mín meiníng: ad þad ſé
manninum þénanlegt vegna yfirſtandandi neyd-
ar ad vera ógiptur; 27. ſértú vid konu bund-
inn, þá leita ekki ſkilnadar, en ſért þú konu-
laus, þá leita ekki kvonfángs. 28. En þótt
þú giptiſt, ſyndgar þú ekki og þó ad mey
giptiſt, ſyndgar hún ekki; en þvílíkir munu í
líkamlega þreyngíngu komaſt, en eg vil hlífa
ydur vid henni. 29. Því þad ſegi eg ydur,
brædur! ad ſkamt muni þeſs ad bída, ad þeir,
ſem konur hafa, verdi ſem þeir einga hefdu;
30. þeir, ſem gráta, eins og þeir, ſem ekki gráta;
þeir, ſem gledjaſt, eins og þeir, ſem af
engu hafa ad gledjaſt; þeir, ſem kaupa, eins
og þeir, ſem ekkért eiga; 31. þeir, ſem njóta
heimſins gjæda, eins og þeir, ſem ekki hafa
þeim ad fagna, því fegurd veraldar mun hverfa.
32. En eg óſka ad þér ſéud áhyggjulauſir.
Hinn ókvænti hyggur ad Drottins vilja, hvørn-
ig hann megi Drottni þóknaſt, 33. en hinn,
ſem kvæntur er, ber áhyggju fyrir því ver-
aldlega, hvørnig hann megi konunni þóknaſt.
34. Þad er og miſmunur á konu og ógiptri
ſtúlku: ſú hin ógipta hugſar um þad, ſem
Drottni vidkémur, ad hún ſé heiløg bædi á

V. 11. Matt. 5, 32. Malak. 2, 14. V. 12. Sem ekki hefir kriſtni tekid. V. 16. Ordid ollandi ad madurinn leidiſt til kriſtni, ſbr. 1 Pét. 3, 1. V. 17. þ. e. leiddi til kriſtni, v. 20—24. V. 18. 1 Makkab. 1, 15. V. 19. Gal. 5, 6. 6, 15. V. 22. Jóh. 8, 36. Róm. 6, 18—22. ſbr. Gal. 5, 13. 1 Kor. 8, 9. V. 23. Kap. 6, 20. ſbr. vid Hebr. 9, 12. V. 26. v. 1. 8. V. 29. Hebr. 10, 25. 37. Jak. 5, 8. 9. ſbr. Lúk. 21, 12-16. V. 31. 1 Pét. 4, 7. 1 Jóh. 2, 17. Eſa. 40, 6. V. 33. Efeſ. 5, 22—24.

sálu og líkama, en sú gipta hugsar um það
veraldlega, hvørnig hún géti manninum þókn-
ast. 35. Þetta segi eg ydur sjálfum til góds
en ekki til ad leggja fyrir ydur fóta kébli,
heldur svo ad þér í sídsemi, støduglega og
hindrunarlaust gétid tilheyrt Drottni. 36. En
ef einhvørr þykist hafa vansa af því, ad mey
hans ekki giptist í tíma og hjá því verdi ekki
komist, þá gjøri hann, sem honum líkar, hann
syndgar ekki, giptist þau. 37. En sá, sem
stendur stødugur í sínum ásetníngi og engin
naudsyn þreyngir til, heldur er sjálfrádur ad
gjøra það hann vill og hefir ásett sér ad geyma
mey sína, hann gjørir vel. 38. Þar fyrir
gjørir sá vel, sem giptir hana, en sá, sem ekki
giptir hana gjørir enn betur. 39. Konan er
bundin medan ektamadur hennar lifir, en þegar
hann er dáinn, er henni frjálst ad giptast hvør-
jum hún vill, einúngis ad hann sé kristinn.
40. En betur er sú farin, sem ekki giptir sig,
eptir minni meiníngu og þykist eg líka hafa
Guds Anda.

## 8. Kapituli.

Enginn láti þekkíngu sína verda ødrum til ásteitíng-
ar. Skurdgod eru ad sønnu ekkért, en þó má
ekki eta skurdgodá fórnir, svo hinn veiktrúadi ekki
hneixlist.

1. Hvad það kjøt áhrærir, sem skurdgod-
um er fórnfært, vitum vér, ad allir høfum vér þekk-
íngu (þekkíngin gjørir mann stærilátann, en kjær-
leikurinn uppbyggir; 2. svo ef nokkurr þykist mik-
ill af þekkíngu sinni, hann þekkir ekkért eins og
þekkja ber; 3. en sá, sem elskar Gud, hann
þekkir Gud). 4. Hvad áhrærir nautn þess,
sem skurdgodum hefir fórnfært verid, þá vit-
um vér ad skurdgod er ekkért og enginn Gud
til utan sá eini. 5. Því jafnvel þó Gudir
séu kalladir svo vel á himni sem á jørdu, (eins
og sagt er: margir eru Gudir og margir drottn-
ar), 6. þá høfum vér ekki nema einn Gud Fød-
urinn, frá hvørjum allt er og vér honum (til
dýrdar) og einn Drottinn Jesúm Krist, fyrir
hvørn allt er, vér einnig. 7. En allir hafa
ekki þessa þekkíngu, heldur eta sumir það enn
nú, af skurdgoda trú, sem skurdgoda fórn, og
saurgast svo þeirra samvitska, sem veik er. 8.
Fædan mælir ekki fram med oss hjá Gudi,
því vér erum hvørki betri þótt vér etum, né verri
þótt vér ekki etum. 9. En gjætid þess, ad
ydar frjálsrædi í þessu verdi ekki hinum fáfród-
ari ásteitíngar efni; 10 því sæi einhvørr breisk-
ur þig, sem upplýstur ert, sitja til bords í skurd-
goda hofi, mundi ekki samvitska þess sem veik-
ur er, stælast svo, ad hann æti skurdgoda fórn-
ir? 11. þannig spillir þú med þinni upplýsíngu
velferd þíns breiska bródurs, fyrir hvørn Krist-
ur er dáinn. 12. Þegar þér þannig syndgid móti
ydar brædrum og meidid þeirra reikandi sam-
vitsku, þá syndgid þér á móti Kristi. 13. Þess
vegna, ef eg med nautninni hneixla minn bród-
ur, skal eg aldrei ad eilífu kjøt eta, svo eg ekki
hneixli hann.

## 9. Kapituli.

Postulinn sýnir, ad hann hafi rétt til ad lifa uppá
kostnad Safnadanna, en eins í þessu, sem fleiru, tak-
marki hann frelsi sitt, til þess ad géta áunnid sem flesta.
Hvetur til ad menn, ad hans dæmi, skuli med strídi
og bindindi gjøra sig verduga þeirra launa, er
sannkristnum þar fyrir eru heitin.

1. Er eg ekki frjáls madur? er eg ekki
Postuli? hefi eg ekki sjed Jesúm Krist Drottinn
vorn? erud þér ekki ávøxtur míns erfidis í

V. 36. 5 Mós. 25, 3. V. 39. Róm. 7, 2. K. 7, 15. V. 1. Post. g. b. 15, 20—29. V. 2. Gal. 6, 3. 1 Jóh. 2, 3. V. 6. Post. g. b. 17, 28. Kól. 1, 15—18. Ef. 2, 10. samanb. Jóh. 1,3. V. 7. ff. Róm. 14, 14. 23. 1 Kor. 10, 28. V. 13. Róm. 14, 21. V. 1. Post. g. b. 9, 3—5. 17. 22, 6. ff. 26, 14—18. 1 Kor. 4, 15.

Drottins þjónustu? 2. þó eg sé ekki annara,
þá er eg samt vissulega ydar Postuli; því ad
þér erud innsigli míns Postula embættis í Drott-
ins þjónustu; 3. þetta er mitt forsvar gégn
þeim, sem hnidra mér. 4. Høfum vér ekki
rétt til ad eta og drekka? 5. er oss ekki leyfilegt ad
hafa med oss kristna konu, eins og hinum Post-
ulunum, brædrum Drottins og Kefasi? 6.
Skyldum vid Barnabas einir ekki hafa leyfi til
ad vera fríir frá vinnu? 7. Hvørr fer nokk-
ru sinni í stríd uppá eginn kostnad? hvørr plant-
ar víngard og neytir ekki af hans ávexti? edur hvørr
vaktar hjørd og neytir ekki af mjólk hjardar-
innar? 8. Tek eg hér dæmi af háttum manna?
segir ekki løgmálid hid sama? 9. því í Mósis
løgmáli stendur skrifad: mýldu ekki nautid, sem
þreskir. Mun Gud bera umhyggju fyrir naut-
unum? 10. vissulega segir hann þad vor vegna.
því vor vegna er þad ritad, ad sá sem plæg-
ir, á ad plægja í voninni, og sá sem þreskir,
verda hluttakandi þess sem hann vonar. 11.
Ef vér høfum sád nidur hjá ydur því and-
lega, er þad þá ofmikid þó vér uppskérum hjá
ydur þad líkamlega? 12. Ef adrir hafa þetta
vald yfir ydur, hvørsu framar þá ekki vér? en
vér høfum ekki hagnýtt oss þad, heldur umber-
um vér allt, svo ad vér gjørum lærdómi Krists
enga hindrun. 13. Vitid þér ekki ad þeir,
sem ad fórnfæríngunum þjóna, eta af fórninni,
og þeir, sem altarinu þjóna, taka hlut med því?
14. Eins hefir og Drottinn tilskipad, ad þeir
sem nádarlærdóminn boda, skuli lifa af því.
15. En eg hefi ekki nýtt mér neitt af þessu.
Eg skrifa þetta ekki heldur til þess, ad svo
skuli vera gjørt vid mig; því mér er betra ad
deya enn ad nokkur ónýti þetta hrós. 16. Þó
ad eg bodi nádarlærdóminn, er þad ekkért hrós
fyrir mig, því eg á ad gjøra þad. Vei mér!
ef eg ekki gjøri þad. 17. Ef eg gjøri þad fús-
lega, fæ eg laun; en gjøri eg þad med naud-
úng er mér þó þetta embætti á hendur falid.
18. Hvør eru þá mín laun? ad eg skuli flytja
nádarbodskap Krists kauplaust og nýta mér ekki
þad leifi, sem bodan nádarlærdómsins gefur mér.
19. Því þó ad eg sé engum manni undirgéfinn, hefi
eg samt gjørt mig sjálfann ad hvørs manns
þjóni svo eg áinni þess fleiri. 20. Á medal
Gydínga hefi eg verid Gydíngur, svo eg áinni
Gydínga, hjá þeim, sem undir løgmálinu
eru, hefi eg verid eins og undir løgmálinu, þó
eg sé ekki undir því, til þess eg áinni þá, sem
undir løgmálinu eru. 21. Hjá þeim løgmáls-
lausu a), sem løgmálslaus, (ekki samt løgmáls-
laus fyrir Gudi, heldur løgbundinn Kristi b),
svo eg áinni þá løgmálslausu. 22. Medal
hinna óstyrku hegdadi eg mér sem óstyrkur,
svo eg áinni þá. Eg hefi verid øllum allt, ad
eg med øllu móti gjæti frelsad nokkra. 23.
Þetta gjøri eg vegna nádarbodskapsins, svo
eg hluttakandi verdi í hans gjædum.

24. Þér vitid ad þeir, sem á skeidvellinum
hlaupa, hlaupa ad sønnu allir, en ekki fær

---

V. 2. 2 Kor. 3, 2. 3. V. 4. lifa í nægtum v. 6 og 7 samanb. vid Matt. 11, 19. 1 Kor. 15, 32. V. 5. Matt. 12, 46. 13, 55. Jóh. 1, 43. Matt. 8, 14. V. 6. Post. g. b. 20, 34. 1 Tess. 2, 9. 2 Tess. 3, 8. sbr. Post. g. b. 18, 3. V. 9. 5 Mós. b. 25, 4. V. 10. 2 Tím. 2, 6. V. 11. Gal. 6, 6. V. 12. Post. g. b. 20, 33. 34. 2 Kor. 11, 11. 12. V. 13. 4 Mos. b. 18, 8. ff. 5 Mós. b. 18, 1—5. 8. V. 14. Lúk. 10, 7 Matt. 10, 10. V. 15. Sjá v. 6. V. 16. Post. g. b. 9, 5. 6. 15. 16. V. 20. Post. g. b. 16, 3. Post. g. b. 21, 23—26. V. 21. a. nl. heidnu er eigi stódu undir Mósis løgum, b. Kap. 7, 22. V. 22. Kap. 8, 7. 10. 11. Róm. 14, 2. Post. g. b. 20, 34. 35. 1 Kor. 10, 33. V. 23. sjá v. 25.

samt nema einn hnossid. Hlaupid þannig ad
þér ødlist þad. 25. En hvørr, sem fer í kapp-
leik, leggur hardt á sig; þeir til ad vinna
forgengilega kórónu, en vér óforgengilega. 26.
Þess vegna hleyp eg ekki svo sem uppá óvissu,
berst ekki sem sá, er í vindinn slær; 27. held-
ur tem eg minn líkama og þjái hann, svo
ad eg, sem kénni ødrum, ekki verdi sjálfur
rækur.

## 10. Kapítuli.

Stroffunar-dómar Guds yfir Gydíngum ega ad þéna ødrum til advørunar; Kristnum sæmir ekki ad sitja ad blót-veitslum; ega jafnvel ad halda sér frá leyfilegum hlutum; t: d: leifum skurdgoda fórna, til ekki ad hneixla adra.

1. Eg vil ekki dylja fyrir ydur, brædur!
ad fedur vorir vóru allir undir skýinu, og ad
þeir allir fóru yfirum hafid, 2. voru til fylgdar
vid Móses, allir skírdir í skýinu og hafinu,
3. neyttu allir þeirrar sømu andlegu fædu og
drukku allir sama andlega drykk, 4. því þeir
drukku af þeirri andlegu hellu, sem þeim fylgdi;
en þessi hella var Kristur. 5. Samt voru
færstir af þeim Gudi þókknanlegir, þessvegna
féllu þeir í eydimørkinni. 6. Þetta er skéd
oss til advørunar, svo ad vér girnumst ekki hid
vonda eins og þeir girntust. 7. Verid ekki
skurdgoda dýrkarar eins og nokkrir af þeim
voru, því skrifad er: þeir settust nidur ad eta
og drekka og stódu upp til leika. 8. Hórist ekki
eins og nokkrir þeirra; þarfyrir dóu 23 þús-
undir á einum degi. 9. Freistid ekki heldur
Krists, eins og sumir af þeim gjørdu og fyrir-
fórust af høggormabiti. 10. Møglid ekki eins
og nokkrir þeirra møgludu, hvørjum og fordjarf-
arinn fyrirfór. 11. Allt þetta kom yfir þá
þeim til bendíngar og er rit d oss til vid-
vørunar, yfir hvørja endir aldanna er kominn.
12. Sá, sem þykist standa, gjæti ad sér ad
hann ekki falli. 13. Þér hafid ekki reynt nema
mannlega freistni; en Gud er trúr, er ekki mun
láta ydur rata í freistni framyfir megn, held-
ur gjøra þann endir þar á, ad þér gétid
stadist hana.

14. Fordist þar fyrir skurdgoda dýrkun, mínir
elskanlegir! 15. Eg tala til ydar svo sem hygg-
inna manna, ransakid þér ord mín, 16. sá bless-
unar kaleikur, hvørn vér blessum, erhann ekki hlut-
tekníng Krists blóds? og braudid, sem vér brjót-
um, er þad ekki hluttekníng Krists líkama? 17.
Fyrst þad er eitt braud, svo erum vér allir einn
líkami, því vér erum allir hluttakandi í þessu
eina braudi. 18. Lítid til þeirra, sem Gydíngar
eru eptir holdinu; koma þeir, sem fórnirnar
eta, ekki í samfélag vid altarid? 19. Hvad
segi eg? ad skurdgod sé nokkud? edur þad,
sem því er offrad, nokkud? 20. en því, sem

V. 25. 1 Pét. 5, 4. Jak. 1, 12. 2 Tím. 4, 7. 8. V. 26. 2 Tím. 2, 5. V. 27. Róm. 8, 13. sbr. vid Matt. 5, 29. 30. V. 1. 2 Mós. b. 13, 21. 5 Mós. 1, 33. Sálm, 78, 14. 2 Mós. b. 14, 22. V. 3. 2 Mós. b. 16, 15. Sálm. 78, 23—25. V. 4. 2 Mós. b. 17, 6. 4 Mós. b. 20, 8. 10. 11. andlegt kallast þad opt í Nýa Testamentinu, sem Gud lætur ské á dásamlegann hátt. V. 5. Hebr. 3, 17—19. 4 Mós. b. 14, 22—30. V. 6. 2 Tím. 3, 16. V. 7. 2 Mós. b. 32, 6. V. 8. 5 Mós b. 25, 1—9. sbr. Esa. 1, 21. Esekk. 23, 7. 30. V. 9. 2 Mós. b. 17, 2—7. 4 Mós. b. 21, 5. eptirfylgjandi samanbr. Heb. 3, 8. 9. V. 10. 4 Mós. b. 14, 2—37. V. 11. sbr. Róm. 4, 23. 24. V. 12. Róm. 11, 20. V. 13. Sálm. 68, 20. V. 14. Post. g. b. 15, 20. 2 Kor. 6, 16. samanb. vid 2 Mós. b. 20, 3. 4. V. 16. Matt. 26, 26. 27. v. 18. 20. V. 17. Kap. 12, 13. 27. V. 18. nl. ad uppruna og fastheldnir vid Gydínga sidu. V. 19. Kap. 8, 4. V. 20. 3 Mós. b. 17, 7. Sálm. 106, 37. Gydíngar ímyndudu sér á Krists og Postulanna døgum ad djøflar væru í skurdgodum og efldu skurdgodadýrkun, eins og allt annad illt.

heidíngjarnir fórnfæra, því fórnfæra þeir samt djøflum, en ekki Gudi; en eg vil ekki ad þér hafid samnautn med djøflunum. 21. Ekki gétid þér undireins drukkid kaleik Herrans og djøflanna kaleik, edur undireins verid hans bordgéstir og þeirra. 22. Edur skulum vér reita Drottinn til reidi? munum vér vera máttugri enn hann?

23. Allt er leyfilegt; en allt gagnar samt ekki. Allt er leyfilegt: en allt er samt ekki til uppbyggíngar. 24. Enginn leiti síns gagns, heldur annara. 25. Etid allt þad, sem á torginu selst og spyrjid ekkért um þad fyrir samvitskunnar sakir, 26. því Drottni tilheyrir jørdin og allt, sem á henni er. 27. Ef einhvørr, sem ekki er kristinn býdur ydur og þér viljid fara, þá etid allt, sem fyrir ydur verdur sett og ransakid þad ekki fyrir samvitskunnar sakir. 28. En ef einhvørr segir til ydar: þetta eru skurdgoda fórnir, þá etid ekki fyrir þess manns sakir, sem advaradi ydur og samvitskunnar vegna. 29. Eg segi samvitskunnar vegna, ekki ydar egin heldur hins; því hvarfyrir skal mitt frelsi dæmast eptir annars manns samvitsku? 30. Ef eg neyti fædunnar med þakklæti, því er mér hallmælt fyrir þad, er eg gjøri Gudi þakkir fyrir? 31. Hvørt heldur þér etid, edur drekkid, edur hvad helst þér gjørid, gjørid þad allt Gudi til dýrdar. 32. Géfid engum hvørki Gydíngi né Grikkja, né Guds søfnudi, nokkra orsøk til ásteitíngar, 33. líka sem og leitast vid ad þókknast øllum í øllu og leita ekki ekki míns hagnadar, heldur margra, svo ad þeir hólpnir verdi. Breytid eptir mér, eins og eg breyti eptir Kristi.

## 11. Kapítuli.

*Lastar, ad menn víki frá vidtekinni venju vid útvortis Guds dýrkun. Áminnir ad sýna bródurlegann kjærleika vid kveldmáltídina og fordast manngreinar álit og alla ósæmilega hegdun, svo menn gjøri sig ekki strafs seka.*

1. 2. Þad er hrósverdt, brædur! ad þér minnist mín í øllu og haldid þær reglugjørdir, sem eg hefi tilsett. 3. En vitid þad, ad Kristur er hvørs karlmanns høfud, en karlmadurinn konunnar høfud, en Gud Krists høfud. 4. Hvørr sá karlmadur, sem bidur edur spáir med høfudfati á høfdi, óvyrdir sitt høfud. 5. En hvør kona þar á móti, sem bidur edur spáir med beru høfdi, óvyrdir høfud sitt, því þad er eins og høfud-hár hennar væri burtrakad. 6. Ef konan vill ekki hylja sig, þá láti hún og afraka sitt høfud-hár; en ef þad er konu vansi ad klippast edur rakast, þá hylji hún høfud sitt. 7. Karlmadurinn á ekki ad hylja høfudid, því hann er ímind og geisli Guds dýrdar, en konan er þar á mót geisli mannsins dýrdar. 8. Madurinn er ekki af konunni, heldur konan af manninum; 9. ekki er heldur madurinn skapadur vegna konunnar, heldur konan vegna mannsins. 10. Þessvegna ber konunni ad bera lotníngar-merki á høfdi sér sakir Englanna. 11.

V. 21. 2 Kor. 6, 15. V. 22. sbr. 5 Mós. b. 32, 21. V. 24. sbr. v. 33. Fil. 2, 4. V. 25. hvert þad séu leifar skurdgoda-fórna, samb. v. 28. 29. V. 26. Sálm. 24, 1. 50, 12. samanb. vid 1 Tím. 4, 4. V. 27. Kap. 8. 7. samanb. vid Matt. 15. 11. 17—20. V. 28. sjá skíríngar gr. í 25. v. Kap. 8, 10. 11 V. 30. Róm. 14, 6. V. 31. 5 Mós. b. 8, 10. Kól. 3, 17. V. 32. Róm. 14, 13. V. 33. Kap. 9, 19—22. Fil. 2, 4. sbr. Kap. 4, 16. V. 3. 1 Mós. b. 3, 16. Ef. 5, 23. 1 Tím. 2, 12. Kap. 3, 23. 15, 27. 28. V. 5. Lúk. 1, 67. 2 Mós. b. 15, 20. sbr. vid 1 Kor. 14, 34. 35. V. 6. 4 Mós. b. 5, 18. V. 7. 1 Mós. b. 1, 27. V. 8. 1 Mós. b. 2, 21—23. V. 9. 1 Mós. b. 2, 18. V. 10. sbr. Tob. 3, 8. 6, 14. sbr. Skgr. vid Kap. 10, 20.

Samt er hvørki madurinn án konunnar né kon-
an án mannsins eptir Drottins tilætlun. 12. Því
eins og konan er af manninum, svo er og mad-
urinn af konunni; en allt er af Gudi. 13. Hugs-
id eptir med sjálfum ydur, hvørt þad sómir
konu ad bidja til Guds berhøfdadri? 14. ed-
ur segir ekki ydar egin náttúra ydur, ad karl-
manni er þad til vanvyrdu ad láta hár sitt
vaxa? 15. en aptur á mót konu sæmd ad láta
hár sitt vaxa, því henni er hárid géfid í skýlu
stad. 16. En vilji nokkurr þrátta hér um, þá
viti hann, ad vér høfum ekki slíka venju og ekki
heldur Guds søfnudir.
17. Undireins og eg gét þessa, vil eg ekki
hrósa því, ad þér komid saman, ekki til ens
betra, heldur til ens verra. 18. Fyrst heyri
eg, ad þegar þér komid saman í søfnudinum,
sé sundurlyndi ydar á milli og ad nokkru leiti
trúi eg því. 19. Flokkadrættir verda ad vera
ydar á milli, svo ad þeir þekkist úr, sem gódir
eru. 20. Þegar þér komid til samans, er
þad ekki til ad halda Drottins Kvøldmáltíd,
21. því hvørr tekur sína sælu fyrifram fyrir
sig, þegar til bordhaldsins kémur, svo einn er
svángur, en annar of mettur. 22. Hafid þér ekki
heimili hvar þér gétid etid og drukkid? edur
fyrirlítid þér Guds søfnud og forsmáid þá, sem
fátækir eru? Hvad á eg ad segja ydur? á
eg ad hrósa ydur? fyrir þetta hrósa eg ydur
ekki. 23. Eg hefi medtekid af Drottni þad,
sem eg hefi kénnt ydur, ad Drottinn Jesús, á
þeirri nótt, sem hann var svikinn, tók braud-
id, gjørdi þakkir, braut þad og sagdi: 24.
þetta er minn líkami, sem fyrir ydur verdur
brotinn; gjørid þad í mína minníngu. 25.
Sømuleidis og svo kaleikinn eptir Kvøldmáltíd-
ina segjandi: þessi kaleikur er nýr sáttmáli í
mínu blódi, gjørid þetta, svo opt, sem þér
drekkid, í mína minníngu. 26. Svo opt, sem
þér etid þetta braud og drekkid af þessum
kaleik, minnist á dauda Drottins þángad til
hann kémur a). 27. Hvørr þarfyrir, sem etur
þetta braud og drekkur af kaleik Drottins ó-
verduglega, sá verdur sekur vid Drottins lík-
ama og blód. 28. Sérhvørr prófi sig þar-
fyrir sjálfann og eti sídan af braudinu og drekki
af kaleiknum; 29. því sá, sem óverduglega et-
ur og drekkur, hann etur og drekkur sér til
dóms áfellis, þared hann ekki gjørir greinar-
mun á Herrans líkama. 30. Þarfyrir eru
svo margir á medal ydar veikir, vanmáttugir
og margir dánir. 31. En ef vér prófum oss
sjálfa, þá værum vér ekki dæmdir. 32. En
þegar Drottinn straffar, þá er þad til betrun-
ar, svo vér ekki skulum fordæmast med heim-
inum. 33. Þarfyrir, brædur mínir! þegar
þér komid saman til máltídar, þá bídid hvørr
eptir ødrum. 34. Ef nokkurn húngrar, eti hann
heima, svo ad þér ekki komid saman ydur til
fordæmíngar. Hitt annad mun eg tilsetja þeg-
ar eg kém.

## 12. Kapítuli.

*Heilagur Andi útbýtir sínum gáfum, hvørjum eptir sinni vild. En sérhvør brúki þær til sameginlegs gagns.*

1. Eg vil ekki láta ydur, brædur mínir!
vera ókunnugt um þad hvørjir andans gjafir

---

V. 11. Gal. 3, 28. V. 12. v. 8. 1 Mós. b. 1, 27. V. 17. v. 22. V. 20. Matt. 26, 26—28. Mark. 14, 22—24. Lúk. 22, 19. 20. samanb. vid 2 Mós. b. 12 og 24 Kapp. V. 25. þ. e. þessi kaleikur er sú nýa trú (Gal. 4, 24.), sem stadfestist med mínu blódi. samanb. 2 Mós. b. 24, 8. V. 26. a. Post. g. b. 1, 11. 1 Kor. 4, 5. V. 28. 2 Kor. 13, 5. Gal. 6, 4. V. 31. þ. e. straffadir. V. 32. Opek. b. 16, 11. sbr. Ordskv. b. 23, 13. Hebr. 12, 5. og eptirf. v. V. 1. Sbr. 1 Jóh. 4, 1.

hafi. 2. Þér vitid, ad þá þér voruð heidíng=
jar, génguð þér til mállausra skurdgoda eptir
því, sem þér leiddir voruð. 3. Þarfyrir skul=
uð þér það vita, að engi sá, sem talar af
Guds anda, formælir Jesú, og að engi gétur
Jesúm kallað Drottinn, nema heilagur Andi sé
með honum. 4. Mismunur er á nádargáfum,
en sami er andinn; 5. mismunur er á embætt=
um, en sami er Drottinn; 6. mismunur er á
framkvæmdum, en Gud er þó hinn sami, er
verkar allt í øllum. 7. En sérhvørjum er géf=
ið að sýna andans gjøf ødrum til gagns; 8.
því að þessum er af andanum géfið að mæla
af vísdómi; en ødrum djúpsær þekkíng af þeim
sama anda; 9. en ødrum trú af sama anda;
ødrum læknis gáfa af þeim sama anda; 10.
ødrum framkvæmdir kraptaverka; ødrum spádóms
gáfa; ødrum greind á að dæma um andans
gáfur; ødrum marghátttaðar túngur; 11. ødr=
um útleggíng túngnanna. En allt þetta verk=
ar einn og hinn sami andi, sem géfur hvør=
jum einum eptir sínni vild; 12. því eins og
líkaminn er ekki nema einn, þó hann hafi
marga limu, en allir limir þess eina líkama,
sem eru margir, eru einn líkami; 13. eins er
Kristur, því að vér erum allir með einum anda
skírdir til að vera einn líkami, hvørt, sem vér
erum Gydíngar, edur Grikkir, þrælar edur
frjálsir menn og allir erum vér drykkjadir svo
vér séum einn andi, 14. því að líkaminn er
ekki einn limur, heldur margir. 15. Þó fót=
urinn segdi: fyrst eg er ekki hønd, er eg ekki
partur líkamans; mundi hann ekki vera það
eins fyrir það? 16. og þó eyrað segdi: fyrst
eg er ekki auga, er eg ekki partur líkamans; mundi
það ekki þar fyrir vera líkamans limur? 17.
Ef allur líkaminn væri auga, hvar væri þá
heyrnin? Ef hann allur væri eyra, hvar
væri þá ylmanin? 18. En nú hefir Gud sett
limina á líkamanum hvørn einn þar, sem hon=
um leitst. 19. Ef allir limirnir væru einn
limur, hvar væri þá líkaminn? 20. En nú
eru limirnir margir, en líkaminn einn. 21.
Augað má því ekki segja til handarinnar: eg
þarf þín ekki við; edur høfuðið við
fæturnar: eg þarf ykkar ekki við; 22. held=
ur eru miklu fremur þeir limir naudsynlegastir
sem auðvyrðilegastir sýnast; 23. og þeim
limum líkamans sýnum vér mestann sóma,
sem vér høldum óálitlegasta og þeir sem ljót=
astir eru, prýðast mest, 24. en þeir, sem fall=
egir eru, hafa þess ekki þørf; heldur hefir
Gud þannig hagað líkamans samtengíngu, að
sá, sem miður er, sé mest verður, 25. svo ekki yrdi
ágreiníngur milli líkamans lima, heldur að
hvørr limurinn beri umhyggju fyrir ødrum.
26. Þar af er það, að hvørt sem einn limur=
inn líður, líða allir limirnir með honum, edur
einum vel vegnar, þá samgledjast allir hin=
ir limirnir. 27. En þér eruð Krists líkami
og limir hvørr fyrir sig. 28. Og suma setti
Gud í søfnudinum fyrst Postula, þarnæst spá=
menn, svo kénnara, þarnæst þá, sem krapta=
verk gjøra, svo þá, sem hafa gáfu til að

---

V. 3. 2 Kor. 3, 5. V. 4. Róm. 12, 6. 1 Pét. 4, 10. 1 Kor. 7, 7. V. 5. Efes. 4, 11. V. 6. Þ. e. Gudi eru allar þessar ýmislegu gáfur að þakka, sbr. v. 4. V. 7. v. 12. 13. V. 9. Matt. 17, 20. 21, 21. V. 10. Post. gb. 2, 4. V. 11. Róm. 12, 6. 1 Kor. 3, 5. 7, 7. V. 12. Róm. 12, 4. 5. V. 13. þ. e. uppfræddir í Krists sáluhjálplega lærdómi, sem innrætir andlegt og elskufullt hugarfar. V. 20. v. 14. V. 27. Róm. 12, 5. V. 28. Spámenn kølluð=ust þeir sem hrifnir af heilagri andagift, líkt og spámenn G. T., kéndu Krists lærdóm og stundum fyrirsøgðu óorðna hluti, (Post. gb. 11, 27. 28. 21, 10. 11). Kénnarar þarámóti þeir, er kénndu með meiri hægd. Ef. 4, 11. Post. gb. 6, 2. 3. 1 Tím. 3, 2—5.

lækna, adstoda, stjórna og ad tala marghátt-udum túngum. 29. Eru allir Postular? allir spámenn? allir lærifedur? Er øllum géf-id ad gjøra kraptaverk? Hafa allir læknis-gáfu? 30. Tala allir túngum, edur géta all-ir útlagt þær? 31. Sækist eptir þeim bestu gáf-um og enn fremur vil eg vísa ydur þann besta veg.

## 13. Kapítuli.

*Ef kjærleikann vantar gagna ekki hinar gáfurn-ar. Elskunnar eginnlegleikar. Allar adrar gáfur þverra loksins; elskan ein er varanleg.*

1. Þó ad eg talad gjæti bædi Engla og manna túngum, en hefdi ekki kjærleikann, þá væri eg eins og hljómandi málmur og hvell-andi bjalla; 2. og þó eg hefdi spádóms gáfu, vissi alla leyndardóma og hefdi allsháttar kunnáttu, hefdi trú svo mikla, ad eg gjæti fjøll flutt, en hefdi ekki kjærleikann, þá væri eg einkis verdur. 3. Og þó eg bitadi nidur allar eigur mínar og léti jafnvel brenna mig, en hefdi ekki kjærleikann, væri þad mér til einkis gagns.

4. Kjærleikurinn er umburdarlyndur, gód-viljadur, ekki øfundsjúkur, ekki raupsamur, 5. ekki hrokafullur, gjørir ekkért ósæmilegt, er ekki sér-plæginn, ekki fljótur til reidi, tilreiknar ekki íllt, 6. gledur sig ekki af óréttvísi, en elskar rád-vendni, 7. er þagmælskur, trúir øllu, vonar allt, umber allt.

8. Kjærleikurinn fellur aldrei úr gyldi, en hvørt heldur þad eru spádóms gáfur, þá munu þær þverra, edur túngur, þá mun þeim linna, edur kunnátta, þá mun hún þrjóta. 9. Því þekkíng vor er ófullkomin og spádóms gáfa eins; 10. en þegar þad fullkomna kémur þá þverr-ar þad ófullkomna. 11. Þegar eg var barn, taladi eg sem barn, var lyndur eins og barn og hugsadi sem barn; en þegar eg vard full-ordinn aflagdi eg bernskuna. 12. Nú sjáum vér gégnum gler í þoku, en á sídan berlega; nú þekkjum vér ad nokkru leiti, en þá mun eg sjálfur þekkja eins og eg er sjálfur þekktur. 13. Þetta þrennt: trúin, vonin og kjærleikurinn er varanlegt, en af þessu er kjærleikurinn mestur.

## 14. Kapítuli.

*Ad tala túngum, þegar enginn útleggur, gagnar ekk-ért; en ad tala af spámannlegri andagift er upp-byggilegra. Konur tala ekki opinberlega í søfnud-inum. Allt framfari þar sómasamlega og med regln.*

1. Stundid eptir kjærleikanum; sækist eptir enum andlegu gáfunum, en allrahelst eptir spá-mannlegri andagift. 2. Sá, sem talar túng-um, talar ekki vid menn heldur vid Gud; því enginn skilur hann, hann talar í anda hulda lærdóma. 3. En sá, sem talar af spámannlegri andagift, talar mønnum til uppbyggíngar, á-minníngar og huggunar. 4. Sá, sem talar túngu, uppbyggir sjálfann sig; en sá, sem tal-ar af spámannlegri andagift, uppbyggir søfn-udinn. 5. Eg vildi ad þér allir gjætud túng-um talad, en þó heldur ad þér tøludud af spá-mannlegri andagift, því þad er meira verdt enn ad tala túngum, nema hann undireins út-leggi, svo ad søfnudurinn hafi þar af uppbygg-íngu. 6. Hvad mundi eg gagna ydur, bræd-ur! þó eg kjæmi til ydar og taladi túngum, nema eg undireins taladi til ydar fyrir opin-berun eda þekkíngu edur spámannlega anda-gift, edur lærdóm? 7. því er eins varid og daudum hlutum, er hljód hafa, hvørt heldur

V. 30. Mark. 16, 17. 18. V. 31. sbr. Kap. 14, 1. V. 1. Post. gb. 2, 4. Matt. 22, 35—40. V. 2. Matt. 7, 22. Matt. 17, 20. 21. sbr. vid Jak. 1, 6. V. 8. sbr. vid Ef. 4, 13. V. 12. 2 Kor. 5, 7. V. 1. Kap. 12, 4. 28. Skrgr. V. 5. v. 24—26. 29—32. sbr. vid Esra. 5, 1. og 6, 14. 4 Mós. b. 11, 25—29. V. 6. Kap. 12, 8. Post. gb. 22, 3. sbr. vid 5, 34.

það er hljóðpípa, eður harpa, ef hún gefur ekki adgreiníng hljóðunum, hvørninn gétur madur þá vitad hvad það er, sem leikid er á pípuna edur hørpuna? 8. Sømuleidis, ef lúdurinn gæfi óskilmerkilegt hljóð, hvørr mundi þá búa sig til bardaga? 9. Þannig og þér, nema ydar mál sé skiljanlegt, hvørr veit þá hvad þér talid? þér talid útí vedrid. 10. Til dæmis: eru svo og svo margar túngur til í heiminum, en engin, sem er meiníngarlaus. 11. Ef eg skil ekki meiníngu málsins, er eg fyrir þeim, er talar, sem útlendíngur og hann eins fyrir mér. 12. Sømuleidis og þér, þared þér sækist eptir andans gáfum, þá kappkostid ad vera sem fullkomnastir søfnudinum til uppbyggíngar. 13. Sá, sem þar fyrir túngu talar, bidji ad hann géti það útlagt. 14. Ef eg bid á framandi túngu, bidur ad sønnu minn andi, en meiníng mín verdur ávaxtarlaus. Hvørnig á það þá ad vera? 15. Eg vil bidja í anda, en bidja undireins svo skiljist; eg vil sýngja í anda, en sýngja svo það skiljist; 16. því þó þú lofir Gud í anda, hvørnig á hinn ólærdi ad segja Amen til þinnar lofgjørdar, þar ed hann veit ekki hvad þú segir? 17. látum svo vera, ad lofgjørd þín sé falleg, en annar hefir ekki uppbyggíngu þaraf. 18. Gudi mínum sé lof! ad eg tala betur túngum enn þér allir; 19. en heldur vil eg í søfnudinum tala fimm ord svo skiljanleg ad eg géti ødrum kénnt, heldur enn tíu þúsund á framandi túngu. 20. Brædur! verid ekki børn í skilníngi, heldur eins og børn í hrekkvísi, en í skilníngi fullordnir. 21. Í løgmálinu stendur skrifad: í framandi túngum og med útlendum vørum vil eg tala til þessa fólks, en samt mun það ekki hlýda mér, segir Drottinn. 22. Framandi túngur eru því teikn, ekki þeim trúudu, heldur vantrúudu; en hin spámannlega andagift ekki þeim vantrúudu heldur þeim trúudu. 23. Ef ad allur søfnudurinn væri saman kominn og allir tøludu túngum og einhvørr vantrúadur, edur sá, sem ekki skildi túngurnar, kjæmi þar inn, mundi hann ekki segja: ad þér værud galdir? 24. En ef allir tala med spámannlegri andagift og einhvørr vantrúadur edur vankunnandi kémur inn, finnur hann leidréttíngar og straffanir í øllu, sem þér segid; 25. það sem í hjarta hans er hulid, verdur opinbert, svo ad hann mun falla fram á sína ásjónu og tilbidja Gud og medkénna ad Gud sé sannarlega med ydur. 26. Hvad flýtur hér af? brædur! ad þegar þér í søfnudinum samankomid og sérhvørr ydar hefir sálm fram ad færa, edur einhvørn lærdóm, edur eitthvad í framandi túngu edur upplýsíngu edur útleggíngu, þá veri það allt til uppbyggíngar. 27. Ef nokkur talar túngu, þá séu það tveir, mest þrír og það til skiptis, en einn leggi út. 28. En ef eingi er, sem gétur útlagt, þá þegi sá í søfnudinum, (sem á framandi túngu talar), en tali vid sjálfann sig og Gud. 29. En tveir edur þrír spámenn mega tala, en adrir dæmi um. 30. En ef nokkur, sem situr, fær opinberun, þá þegi sá fyrri. 31. Allir gétid þér, hvørr eptir annann talad spámannlegri andagift, svo ad allir læri og allir huggist, 32. því spámanna andar eru spámønnum undirgéfnir a), 33. med því Gud er ekki óeirdar heldur fridarins Gud. Eins og vidgeingst í øllum søfnudum kristinna manna, 34. ber ydrum konum ad þegja í søfnudunum, því þeim er ekki

V. 15. Efes. 5, 19. V. 20. Matt. 18, 3. 19, 14. V. 21. Esa. 28, 11. 12. V. 25. Kap. 4, 5. 1 Sam. 19, 20—24; Sakk. 8, 23. V. 26. Kap. 12, 8. 10. V. 29. Kap. 12, 10. 1 Jóh. 4, 1. V. 32. a. Þ. e. ráda yfir sinni andagift. V. 33. Jak. 3, 16. Róm. 15, 33. V. 34. 1 Tim. 2, 12. sbr. vid Ef. 5, 22. Tít. 2, 3. 1 Kor. 11, 3. 1 Mós. b. 3, 16.

leyft ad tala, heldur ad hlýda, eins og líka løgmálid býdur. 35. En ef þær vilja frædast í einhvørju, spyrji þær menn sína heima, því konum sæmir þad ekki ad tala í søfnudinum. 36. Edur hefir Guds lærdómur frá ydur útgengid? eda erud þér þeir einustu, er hann er kominn til? 37. Ef nokkurr þykist spámadur vera, edur gjæddur andans gáfu, þá viti hann, ad þad, sem eg hér skrifa ydur, er Drottins bod. 38. Ef nokkur vill ekki vid þetta kannast rádi hann því. 39. Kappkostid því, brædur! ad ødlast spámannlega andagift; ekki skulud þér heldur banna ad tala túngum; en allt framfari fallega og med reglu.

## 15. Kapítuli.

*Páll vitnar um Krists upprisu. Hrekur þá, sem neita henni. Kénnir, hvørninn þeir daudu muni upprísa. Huggar þar med þá trúudu.*

1. Eg vil aptur minna ydur, brædur! á nádar bodskap þann, er eg ádur hefi bodad ydur og þér veittud medtøku, 2. vid hvørn þér hafid og svo haldid støduglega og sem mun ydur einninn hólpna gjøra, ef þér geimid hans eins og eg kénndi ydur hann, nema svo sé, ad þér hafid ófyrirsynju trúna tekid. 3. Eg kénndi ydur fyrst og fremst þann lærdóm, sem eg hefi medtekid: ad Kristur væri dáinn vegna vorra synda eptir Ritníngunum, 4. og grafinn og upprisinn á þridja degi eptir Ritníngunum 5. og sé sjedur af Kefasi og þar eptir af þeim tólf. 6. Þar eptir var hann sjedur í einu af meir enn fimm hundrud brædrum, er flestir lifa allt til þessa dags, en sumir eru dánir. 7. Þar eptir birtist hann Jakobi, sídan øllum Postulunum. 8. Sídast allra opinberadist hann og svo mér, svo sem ótímabærum burdi; 9. því eg er sídstur Postulanna, og ekki verdur ad kallast Postuli, því ad eg hefi ofsókt Guds søfnud; 10. en af nád Guds er eg þad eg er, og nád hans vid mig hefir ekki verid til forgéfins, heldur hefi eg unnid meira enn allir hinir; þó ekki eg, heldur Guds nád, sem med mér er. 11. Þad sé nú eg, edur þeir, þá kénnum vér þannig og þannig høfum vér trúad.

12. En ef þad er kénnt, ad Kristur sé upprisinn, hvørninn géta þá nokkrir af ydur sagt, ad daudra upprisa sé ekki til? 13. en ef daudra upprisa er ekki møguleg, þá er Kristur heldur ekki upprisinn; 14. en ef Kristur er ekki upprisinn, þá er vor kénníng ónýt og trú ydar líka ónýt. 15. Vér finnumst þá og ljúgvottar Guds, þar ed vér høfum vitnad um Gud, ad hann hafi uppvakid Krist frá dauda, er hann hefir ekki uppvakid, ef daudir ekki upprísa; 16. því ef daudir ekki upprísa, þá er Kristur ekki upprisinn; 17. en ef Kristur er ekki upprisinn, þá er ydar trú ónýt, 18. þér erud þá enn nú í ydar syndum og þeir kristnu, sem dánir eru, fortapadir. 19. Ef vér einúngis í þessu lífi settum vora von til Krists, þá værum vér hinir vesælustu allra manna. 20. En nú er Kristur upprisinn frá daudum, frumgródi allra þeirra sem dánir eru; 21. því þar ed daudinn kom fyrir einn mann, kom og upprísa daudra fyrir einn mann.

---

V. 35. 1 Tím. 2, 11. V. 1. Gal. 1, 11. 12. V. 2. Róm. 1, 16. 1 Kor. 1, 21. V. 3. Sálm. 22, Esa. 53, Sakk. 13, 7. 1 Pét. 1, 10—12. V. 4. Sálm. 16, 8. ff. Post. gb. 2, 30 - 34. V. 5. Lúk. 24, 34. Lúk. 24, 36. Mark, 16, 14. Jóh. 20, 24. V. 7. Lúk. 24, 50. V. 8. Post. gb. 9, 5. 17. V. 9. Post. gb. 9, 1. Gal. 1, 13. V. 10. 2 Kor. 12, 9. V. 12. Matt. 22, 23. Post. gb. 23, 8. V. 15. Post. gb. 2, 24. 32. V. 16. Róm. 8, 11. V. 17. v. 11. sbr. Róm. 8, 2. 3. V. 20. Post. gb. 26, 23. Kól. 1, 17. Opinb. b. 1, 5. V. 21. 1 Mós. b. 3, 3. 6. Róm. 5, 12. 18.

22. Því að líka sem allir deya í Adam, svo
munu og allir lífgast í Kristi, 23. sérhvørr í sínni
røð; Kristur er frumgróðinn, þar næst munu
þeir, sem Kristi tilheyra upprísa í hans tilkomu.
24. Þar eptir kémur endirinn, þá hann mun
selja Guði og Føður ríkið í hendur, þá hann
búinn er að afmá allt veldi, herradæmi og
makt; 25. því að honum ber að ríkja, þar til
hann hefir lagt alla óvini undir sínar fætur.
26. Sá síðasti óvinur, sem afmáist, er dauð-
inn; 27. því allt hefir hann undir hans fæt-
ur lagt. En þegar hann segir, að allt sé hon-
um undirgéfið, þá er það auðsætt, að sá er
þar frá undanskilinn, er allt lagði í hans vald.
28. En þegar hann er búinn að leggja allt
undir hans veldi, þá leggur sjálfur Sonurinn
sig undir þess veldi, er áður hafði lagt allt
undir hans vald, svo að Guð sé allt í øllu.
29. En hvað gjøra þeir, er láta skírast fyrir
hina dauðu, ef dauðir øldúngis ekki upp-
rísa? og því láta þeir skíra sig fyrir þá? 30.
Og því erum vér í sífeldum háska? 31. Dag-
lega er eg í dauðans hættu; það vitna eg há-
tíðlega við lofstýr þann, sem eg af yður hefi í
þjónustu vors Drottins Jesú Krists. 32.
Hvørt gagn hefði eg af því, að eg hefi við
óarga dýr (að eg kveði svo að orði) barist í
Efesus, ef að dauðir ekki upprísa? 33. Lát-
um oss eta og drekka, því á morgun deyum
vér. 34. Látið ekki villa yður; vondt samfé-
lag spillir góðum siðum. Vaknið fyrir alvøru
og syndgið ekki; sumir þekkja ekki Guð. Eg
segi þetta yður til blygðunar.

35. En máské einhvørr segi: hvørnig géta
dauðir upprísið? með hvílíkum líkama munu þeir
framkoma? 36. Þú heimskíngi! það, sem þú
sáir lifnar ekki aptur, nema það deyi; 37. og
það, sem þú sáir, er ekki sá líkami, er það síð-
ar verður, heldur embert frækorn, til dæmis:
hveitis, eður einhvørs annars; 38. en Guð
géfur því líkama eptir sem hann vill og sér-
hvørju frækorni sínn eginlegann líkama. 39.
Ekki er allt hold sama hold; heldur er annað
mannanna, annað hold dýranna, annað fisk-
anna, annað fuglanna. 40. Til eru bæði him-
neskir líkamir og jarðneskir líkamir, en ønnur
er fegurð þeirra himnesku, ønnur þeirra jarð-
nesku. 41. Øðruvísi er birta sólarinnar, øð-
ruvísi túnglsins og enn øðruvísi stjarnanna (því
stjarna er stjørnu bjartari). 42. Þannig er
og varið upprisu hinna dauðu. Hér er nið-
ursáð forgengilegum líkama, en upprís ófor-
gengilegur; 43. hér er niðursáð óásjálegum lík-
ama, en upprís vegsamlegur; 44. það er nið-
ursáð veikum, en upprís máttugur; náttúrleg-
um líkama verður niðursáð, en upprís and-
legur líkami. Til er náttúrlegur líkami, til er
líka andlegur líkami. 45. Svo stendur og
skrifað: hinn fyrsti maður Adam varð að lif-
andi sálu, hinn síðari Adam að lífgandi anda.
46. Ekki kom hinn andlegi fyrst, heldur hinn
náttúrlegi, þar eptir hinn andlegi. 47. Hinn
fyrri maður varð mold af jørðu, hinn síðari
maður er Drottinn af himni. 48. Eins og sá
jarðneski var, þannig eru þeir jarðnesku
og eins og sá himneski var, þannig og þeir

V. 22. Róm. 5, 21. 1 Kor. 15, 26. 55. 57. 2 Tím. 1, 10. Post. g. b, 17, 31. 1 Tess. 1, 10. 4, 14—17. V. 23. Post. g. b. 26, 23. Matt. 24, 42. 26, 64. V. 24. Matt. 2, 6. samanb. við Post. g. b. 26, 18. V. 25. Sálm. 110, 4—6. 2, 7—10. V. 27. Fil. 2, 9—11. sbr. við Sálm. 8, 7. V. 28. Kap. 3, 23. 11, 3. Jóh. 14, 28. sbr. við Matt. 28, 18. Hebr. 2, 8. V. 30. Róm. 8, 36. V. 32. Pgb. 19, 23. ff. V. 33. Esa. 22, 13. sbr. Spek. b. 2, 6. V. 34. 1 Tess. 4, 5. V. 35. Esek. 37, 3—6. V. 36. Jóh. 12, 24. V. 38. 1 Mós. b. 1, 11. 12. V. 43. Fil. 3, 21. V. 45. 1 Mós. b. 2, 7. V. 47. Jóh. 3, 31. V. 48. 1 Mós. b. 5, 3.

himnesku; 49. og eins og vér høfum borid líkíng þess jardneska, eins munum vér og bera líkíng þess himneska. 50. Hér med vil eg sagt hafa, brædur! ad hold og blód gétur ekki ødlast Guds ríki, né hid forgengilega óforgengilegleikann. 51. Sjá! eg segi ydur leyndardóm: vér munum ekki allir sofna, en allir umbreitast í vetfángi, í einu augnabliki, 52. vid hinn sídasta lúdurs þyt; (því lúdurinn mun gélla og hinir daudu upprísa óforgengilegir, en vér umbreytast), 53. því þad forgengilega verdur ad íklædast óforgengilegleikanum og hid daudlega ódaudlegleikanum.

54. En þegar hid forgengilega íklædist óforgengilegleikanum og hid daudlega ódaudlegleikanum, þá rætist þad, sem skrifad er: daudinn er uppsvelgdur í sigur; 55. daudi! hvar er þinn broddur? mirkra heimur! hvar er þinn sigur? 56. en broddur daudans er syndin, en afl syndarinnar er løgmálid. 57. Gudi séu þakkir, sem oss hefir sigurinn géfid fyri vorn Drottinn Jesúm Krist! 58. Brædur mínir elskanlegir! verid þess vegna stødugir, óbifanlegir, ætíd ávaxtarsamir í verki Drottins, med því þér vitid ad ydar erfidi í Drottins (þjónustu) ekki muni verda forgéfins.

## 16. Kapítuli.

Nidurlag bréfsins.

1. Hvad vidvíkur ydar ølmusu safni handa enum kristnu, þá hegdid ydur þar í eins og eg hefi bodid søfnudinum í Galatíu. 2. Hvørr ydar leggi affídis heima hjá sér á fyrsta degi vikunnar og geymi í einum sjód, eptir sem útvegur hans hefir heppnast, svo ad safnid þá ekki þurfi fyrst ad ské, þegar eg kém. 3. En þegar eg kém, mun eg senda þá, sem þér álítid hæfa, med gáfu ydar til Jerúsalem og skrifa med þeim; 4. og ef eg finn þad ómaksverdt ad eg sjálfur fari, þá læt eg þá fara med mér. 5. Eg mun koma til ydar þegar eg fer um Makedoníu (því um hana fer eg) og dvel kannské hjá ydur, 6. jafnvel verd kyrr vetrar-lángt; þér gétid þá leidbeint mér hvørt sem eg fer. 7. Nú vil eg ekki koma vid hjá ydur, en eg vona, ef Gud lofar, ad dvelja nokkra stund hjá ydur. 8. Allt til Hvítasunnu verd eg kyrr í Efesus, 9. því mér hefir þar mikid og krøptugt tækifæri géfist, þó mótstødumennirnir séu margir.

10. Ef Tímóteus skyldi koma til ydar, þá sjáid svo til, ad hann géti óttalaus hjá ydur verid, þvíad hann vinnur ad Drottins verki eins og eg. 11. Enginn forsmái hann, greidid heldur ferd hans med fridi, svo ad hann komist til mín, því eg vænti hans med Brædrunum. 12. Bródur Apolló hefir eg mikillega bedid ad hann fylgdist med brædrunum til ydar, en hann vill ómøgulega fara nú strax, en mun koma þegar hann fær hentugleika þar til. 13. Vakid, haldid fast vid trúna, sýnid ydur karlmannlega og krøptuga, 14. audsýnid kjærleika í øllu.

15. Enn þá verd eg ad bidja ydur eins,

---

V. 49. 2 Kor. 4, 11. V. 50. Jóh. 3, 5. 6. V 52. 1 Tess. 4, 15. 17 sbr. 2 Kor. 5, 4. V. 55. Es. 25, 8. Hós. 13, 14. sbr. Sálm. 18, 5. 6. V. 56. Róm. 3, 20. 4, 15. 7, 8. 13. V. 57. 1 Jóh. 5, 5. V. 58. Tob. 4, 21. 2 Kor. 5, 10. V. 1. 2 Kor. 8, 4. sbr. vid Post. g. b. 11, 29. V. 5. Postgb. 19, 21. 2 Kor. 1, 16. V. 6. Róm. 15, 24. V. 9. Post. gb. 18, 27. 19, 1—5. 10. 20. 28. 34. V. 10. Fil. 2, 19. 20. V. 11. Post. g. b. 19, 22. V. 12. Kap. 3, 4—6. Post. g. b. 18 24. 19, 1. V. 13. Kap. 15, 34. Efes. 6, 10. ff. Kól. 1, 11. V. 15. Kor. 1, 16. sbr. Róm. 16, 1—5.

Brædur! þér vitid ad Stefáns heimilis = fólk var frumgródi Akkaju og hefir helgad sig þjónustu kristinna; 16. sýnid þvílíkum undirgéfni og øllum þeim, sem eru tilhjálpandi og vinna þar ad. 17. Eg gledst vid Stefáns, Fortúnatí og Akkaíkí nærveru; þeir hafa bætt mér ydar søknud; þeir hafa bædi gladt mig og ydur. 18. Hafid mætur á slíkum mønnum.

19. Ydur heilsa Søfnudirnir í Asíu. Akvílas og Priskilla bidja mikillega ad heilsa ydur í Drottni, ásamt søfnudi þeim, sem samankémur í þeirra húsi. 20. Allir brædurnir heilsa ydur. Berid þessa kvedju hverr til annars med heiløgum kossi.

21. Kvedjan er skrifud med minni egin hendi. 22. Ef nokkurr er sá, sem ekki elskar Drottinn Jesúm Krist, sá sé bølvadur! Drottinn kémur. 23. Nádin Drottins vors Jesú Krists sé med ydur! 24. minn kjærleiki sé med ydur øllum í Jesú Kristi, Amen!

# S. Páls sídari Pistill til Korintu = manna.

## 1. Kapítuli.

Huggun og þolinmædi Páls í allskonar mótgángi. Tilgreinir hvørs vegna hann hafi ekki komid til Korintu.

1. Páll, ad Guds vilja Postuli Jesú
Krists og bródir Tímóteus, heilsa Søfnudi Guds
í Korintuborg og øllum kristnum í Akkaju. 2.
Nád sé med ydur og fridur af Gudi vorum
Fødur og Drottni Jesú Kristi.
3. Lofadur veri Gud og Fadir Drottins
vors Jesú Krists, miskunsemdanna Fadir og
Gud allrar huggunar, 4. sem huggar oss svo
í øllum vorum þjáníngum, ad vér gétum aptur
huggad adra í allsslags þjáníngu med sømu
huggun, er Gud huggadi oss med; 5. því eins
og vér høfum fyrir mørgum þjáníngum ordid
vegna Krists, svo hefir hann og fyrir Krist
yfirgnæfanlega veitt oss hugganir, 6. því hvørt
heldur vér lídum þjáníngar, þá er þad ydur
til huggunar og sáluhjálpar edur vér ødlustum
huggun, er þad ydur til þeirrar huggunar,
sem mun sýna sig krøptuga til þolinmædi í
sømu þjáníngum, sem vér og lídum. 7. Og
þessi vor von um ydur er stadføst, þared vér
vitum, ad eins og þér erud hluttakandi ordnir
í þjáníngunum, eins munud þér verda þad í hugguninni.
8. Því vér viljum ekki dylja fyrir
ydur, Brædur! ad þjáníngar þær, sem vér
urdum fyrir í Asíu, voru yfirmáta þúngar og
þýngri enn vér gjætum þær borid, svo vér ørvæntum
jafnvel um líf vort. 9. Já, oss sýndist
med sjálfum oss ad vér þegar hefdum féngid
vorn daudadóm, svo vér ekkért traust settum
til sjálfra vor, heldur til Guds, sem uppvekur
dauda. 10. Hann frelsadi oss frá þessari
miklu daudans hættu og frelsar, 11. og
honum treystum vér til þess, ad hann eins hér
eptir muni frelsa oss, ef þér og svo styrkid þar

V. 21. 2 Tess. 3, 17. Kól. 4, 18. V. 5. Kap. 4, 10. 7, 6. sbr. vid Sálm. 94, 19. V. 7. 2 Tess. 2, 16. 17. V. 8. Post. g. b. 19, 23. samanb. vid 20, 3. 1 Kor. 15, 32. V. 11. Róm. 15, 30. Fil. 1, 19. Filem. v. 22.

til med ydar bænum fyrir oss, svo ad sú nád,
sem oss veitist fyrir margra bænir, vegsamist
vor vegna af mørgum med þakkargjørd.

12. Sá vitnisburdur vorrar samvitsku, er
vér hrósum, ad vér høfum hegdad oss falslaust
í heiminum og med Gudi velþókknanlegum grand-
varlegleika, ekki fyrir adstod holdlegrar a) speki
heldur Guds nádar, allrahelst hjá ydur; 13.
því ekki skrifa eg ydur annad enn þád, sem þér
lesid og líka þekkid, og eg vona þér munid reyna
oss svo til endaloka, 14. eins og þér búnir erud ad
þekkja oss ad nokkru leiti, ad vér munum verda
ydur til sóma, eins og þér oss, á degi Drott-
ins Jesú.

15. Í þessu trausti ásetta eg mér fyrri
ad koma til ydar, svo ad þér í annad sinn
hefdud føgnud, 16. og ad fara um hjá ydur
til Makedoníu og koma aptur þadan til ydar
og fá ydar fylgd til Gydíngalands. 17. Sýnda
eg nokkurt lauslyndi í því ad eg ásetti mér
þetta? edur sýndi þessi ásetníngur minn holds-
legt rádlag, svo mitt já, væri tómt já og nei
tómt nei? 18. Sá sannordi Gud sé mitt
vitni, ad lærdómur vor hjá ydur var ekki já og
nei! 19. Guds Sonur Jesús Kristur, sem
vér kénndum ydur, nefnilega: eg, Sylvanus og
Tímóteus, var ekki já og nei, heldur var allt
í honum já; 20. því svo mørg, sem Guds
fyrirheit eru, þá eru þau í honum af oss sønn-
ud ad vera já og amen, Gudi til dýrdar. 21.
En sá, sem heldur oss ásamt ydur fast vid
Krist og hefir smurt oss, 22. er Gud, sá
ed og hefir sett sitt merki á oss og géfid pant
andans í vor hjørtu. 23. En eg kalla Gud
mér til vitnis um þad, ad eg af hlífd vid yd-
ur ekki hefi komid til Korintu-borgar. 24.
Ekki þess vegna ad vér viljum drottna yfir
ydar trú, heldur hjálpa til ydar gledi; því þér
standid stødugir í trúnni.

## 2. Kapituli.

Sama efni. Bidur ad inntaka hann aptur í søfn-
udinn, sem hafdi bætt rád sitt. Þakkar Gudi,
sem blessar hans embætti.

1. Med sjálfum mér hefi eg ásett ekki ad koma
aptur med sorg til ydar; 2. því ef eg hryggi ydur,
hvørr gledur mig þá nema sá, er eg ádur hafdi
hryggt? 3. Þetta skrifa eg ydur til þess, ad þeg-
ar eg kém, hafi eg ekki hrygd af þeim, er eiga
ad gledja mig. Eg hefi þad traust til ydar
allra, ad ydur øllum se þad til gledi, sem mér
er til gledi. 4. Med mikilli sorg og hjartans
ángri og mørgum tárum skrifadi eg ydur, ekki
til þess ad hryggja ydur, heldur til þess þér þar
af sæud þá miklu elsku, er eg hefi til ydar.

5. Ef nokkurr er sá, sem hefir hrygdar ollad,
þá hefir hann ekki hryggt mig, heldur ad nokkru
leiti ydur alla, eg vil ekki segja annad þýngra. 6.
Látid honum duga þá strøffun, sem á hann er
løgd af mørgum, 7. svo þér ættud nú því
heldur ad fyrirgéfa honum og hugga hann,
svo ad ofmikil sorg ekki gjøri útaf vid hann.
8. Eg bid ydur ad sýna honum elsku; 9. því
til þess skrifadi eg ydur, ad eg fengi ad vita
hvørninn þér reyndust, hvørt þér erud hlýdnir
í øllu. 10. En ef þér fyrirgéfid þessum, þá

---

V. 12. Hebr. 13, 18. Matt. 10, 16. a. þ. e. mannlegrar. 1 Kor. 2, 4—13. V. 14. Kap. 5, 12. samanb. vid Fil. 2, 16. 1 Tessal. 2, 19. 20. V. 16. 1 Kor. 16, 6. V. 17. Matt. 5, 37. V. 18. nefnil. hvikull. V. 19. Post. g. b. 18, 5. V. 21. þ. e. géfid oss sinn heil: anda og gjørt ad sínum erindsrekum. 1 Jóh. 2, 20. Post. g. b. 10, 37. 38. Jóh. 17, 18 sbr. Es. 61, 1. V. 22. nl. sem Krists postula sbr. Jóh. 6, 27. 8, 18. Ef. 1, 13. 14. 4, 30. Róm. 8. 14—17. 2 Kor. 5, 5. 1 Jóh. 3, 24. 4, 13. V. 1. 2 Kor. 12, 21. V. 6. 1 Kor. 5, 5. sbr. Matt. 16, 19. 18, 17. V. 9. 1 Kor. 5, 12.

eg í sama máta; því ad og svo eg, ef eg hefi fyrirgéfid nokkud, þá hefi eg fyrirgéfid þad ydar vegna fyrir Krists áugliti, 11. svo vér ekki verdum sigradir af Satan, því oss eru ekki ókunn hans vélabrøgd.

12. Þegar vér komum til Tróas til ad kénna nádarlærdóm Krists, þá, þótt gott tækifæri gjæfist oss þar til, hafdi eg ekki ró í mér til þess, af því eg hitti ekki bródur minn Títum; 13. kvaddi þá því og fór til Makedoníu. 14. Þakkir séu Gudi, sem ávalt géfur oss sigur í Krists erindi og lætur hans þekkíngar ylm allstadar af oss útbreidast. 15. Vér erum fyrir Gudi Krists ylmur, bædi fyrir ena hólpnu og fortøpudu; 16. þessum banvænn eimur til dauda, hinum lífgandi ylmur til lífs; en hvørr er þar til hæfur? 17. Ekki meingum vér Guds lærdóm, sem margir gjøra, heldur kénnum vér fyrir augsýn Guds ómeingadann Krists lærdóm, svo sem frá Gudi kominn.

## 3. Kapítuli.

Páll talar um vegsemd kristnibodara embættisins og um þá djørfúng er því fylgi.

1. Munum vér aptur vera farnir ad hæla oss sjálfum? edur munum vér þess vidþurfa eins og sumir, ad fá hólsbréf til ydar edur frá ydur til annara? 2. Þér erud vort bréf skrifad í vor hjørtu, lesid og alkunnugt øllum mønnum; 3. því alkunnugt er, ad þér erud Krists bréf af oss ritad, ekki med bleki, heldur lifanda Guds anda, ekki á steinspjøld, heldur hjartans holdspjøld. 4. Þetta traust høfum vér til Guds vegna Krists. 5. Ekki svo, ad vér af sjálfum oss hæfir séum ad hugleida nokkud svo sem af sjálfum oss, heldur er vor hæfilegleiki frá Gudi; 6. hann hefir gjørt oss hæfa til ad vera þjóna þess nýa sáttmála, ekki bókstafsins, heldur andans; því bókstafurinn deydir, en andinn lífgar. 7. En ef þjónustan, sem á steina var kløppud var svo dýrdleg, ad Israels synir ekki þoldu ad horfa á Mósis andlit fyrir bjartleiks sakir, er þó átti ad þverra; 8. hvørsu miklu dýrdlegri mun þá verda þjónusta andans? 9. Ef þjónusta þess, sem fordæmir, var svona dýrdleg, þá mun þjónusta þess, sem réttlætinguna bodar, miklu dýrdlegri vera, 10. svo ad hid dýrdlega er ad þessu leiti ekki dýrdlegt í samanburdi vid hins yfirgnæfandi dýrd. 11. Ef þad, sem afmást átti, var dýrdlegt, hvørsu miklu framar þá þad, sem varanlegt er. 12. Med því vér høfum þessa von, svo tølum vér alldjarflega, 13. og ekki eins og Móses, er hengdi skýlu fyrir andlit sitt, svo ad Israels synir skyldu ekki sjá endalok ens forgengilega. 14. Enda hefir skilníngur þeirra sljóskygn verid, því allt til þessa dags vidvarir hin sama skýla óburttekin undir gamla sáttmálans lestri, því einúngis med Kristi a) verdur hún burttekin. 15. En allt til þessa dags hvílir skýla yfir skilníngi þeirra, þegar Móses løgmál er lesid; 16. en ef ad þeir snéru sér til Drottins mundi skýlan burttakast. 17. Drottinn er andi, en hvar hans andi er, þar

---

V. 12. Post. g. b, 16, 8. eptirs. v. V. 14. Þekkínguna á hans lærdómi. V. 15. Páll líkir sér og hinum Postulunum vid reykélsis fórn, af því helgad høfdu allt sitt líf og krapta kristnibodinu. V. 16. 1 Kor. 1, 18. ul. hæfur af eginn krøptum, til ad boda kristni. 2 Kor. 3, 5. 6. V. 2. 1 Kor. 9, 2. V. 3. 2 Mós. b. 24, 12. Esekk. 11, 19. V. 6. sbr. Róm. 4, 15. 3, 20. 21. 7. 7—11. V. 7. 2 Mós. b. 34, 29—35. V. 10. Mósis trú, ennar kristilegu trúar. V. 11. Hebr. 12, 25—28. V. 13. 2 Mós. b. 34, 33. 35. V. 14. a. þ. e. þekkíngu hans lærdóms. V. 16. 1 Kor. 2, 14—16. V. 17. Jóh. 4, 24.

er frelsi. 18. En vér allir er skoðum, svo sem í spegli a) með beru andliti b) Drottins dýrð c), umminduſtum d), svo sem af Drottins anda, eptir þessari sømu mind til meiri og meiri dýrðar.

## 4. Kapítuli.

*Páll forsvarar sinn kénnslu=máta. Talar um sínar þrautir og huggun.*

1. Með því vér høfum þvílíka þjónustu á hendi, eptir þeirri náð, sem oss er veitt, þá letjumst vér ekki, 2. heldur afsegjum alla leynilega svívyrðíngu, brúkum hvørki vélar né følsum Guðs orð, heldur, líka sem fyrir Guðs augliti, mælum fram með oss fyrir hvørs manns samvitsku, með sannleikans auglýsíngu. 3. Ef nokkrum er vor kénníng hulin, þá er það fortøpuðum, 4. hvørra skilníng þessarar aldar høfðíngi hefir svo blindað, að þeir ekki sjá birtu þess dýrðlega náðarlærdóms Krists, sem er Guðs mind. 5. Ekki prédikum vér oss sjálfa, heldur Drottinn Jesúm Krist, en oss yðar þjóna Krists vegna; 6. því Guð, sem bauð að ljós skyldi skína úr mirkri, hefir látið ljós skína í vor hjørtu, svo þekkíng Guðs dýrðar í Kristi Jesú skyldi augljós verða.

7. En þenna fjársjóð berum vér í leirkérum, svo að kraptarins stærð sé Guðs, en ekki af oss. 8. Í øllu þjøkumst vér, en látum þó ekki hugfallast; erum vonlitlir, en ørvýlnumst þó ekki; offóktir, en þó ekki hjálparlausir; 9. feldir til jarðar, en tortýnumst þó ekki. 10. Jafnan berum vér deyðíngu Jesú á líkamanum, svo að Jesú líf auglýsist á vorum líkama; 11. því þótt vér lifum, erum vér jafnan til dauða seldir vegna Jesú, svo að hans líf einnig augljóst verði í vorum dauðlega líkama. 12. Dauðinn e) sýnir því sinn krapt í oss, en lífið f) á yður. 13. En með því vér høfum hinn sama anda trúarinnar, eins og skrifað stendur: „eg trúði, þarfyrir talaði eg", þannig einnig trúum vér og þarfyrir tølum vér, 14. þareð vér vitum, að sá, sem uppvakti Drottinn Jesúm, muni fyrir Jesúm uppvekja oss og framleiða ásamt yður. 15. Því allt þetta er yðar vegna, svo að hin mikla náð, vegna margra þakkargjørðar yfirgnæfi Guði til dýrðar. 16. Þarfyrir letjumst vér ekki, því jafnvel þó vor ytri maður hrørni, endurnýast samt vor innri maður dag eptir dag; 17. því vor þreyngíng, sem skammvinn er og léttbær, ablar oss yfirgnæfanlegrar eilífrar dýrðar; 18. oss, sem ekki lítum til þess sýnilega, heldur ósýnilega; því hið sýnilega er tímanlegt, en hið ósýnilega eilíft.

## 5. Kapítuli.

*Sama efni. Talar um sinn verðugleika, sem náðarlærdómsins kénnara.*

1. Því vér vitum að jafnvel þó þessi vor jarðneska tjaldbúð verði niðurbrotin, høfum vér samt hús af Guði, ekki með høndum gjørt, eilíft á himni. 2. Samt andvørpum vér þess vegna, að oss lángar til að fá yfir oss hið himneska húsið, 3. (því klæddir, en ekki naktir, munum vér þá fundnir verða). 4. En á

V. 18. a. nl. í ófullkomlegleika. 1 Kor. 13, 12. b. sjá v. 14. c. þ. e. Guðs. d. 1 Jóh. 3, 2. 6, 9. Róm. 8, 29. V. 4. sbr. Post. g. b. 5, 3. Efes. 2, 2. Jóh. 12, 31. 14, 30. V. 5. Post. g. b. 2, 36. 10, 36. V. 6. 1 Mós. b. 1, 3, 16. V. 7. 1 Kor. 3, 5. V. 10. 1 Kor. 15, 19. V. 12 e. nl. dauðans hætta (v. 11). f. nl. varðveitsla lífs míns. V. 13. Sálm. 116, 10. V. 14. 1 Kor. 5, 1. 10. sbr. Róm. 8, 11. V. 17. Róm. 8, 18. V. 1. 2 Pét. 1, 13. 14. V. 4. 1 Tess. 4, 15—17. 1 Kor. 15, 51—54.

medan vér erum í þessari tjaldbúd, stynjum
vér undir byrdi vorri, þared vér viljum ekki
afklædast, heldur yfirklædast, svo hid daudlega
uppsvelgist af því ódaudlega. 5. En sá Gud,
sem þetta hefir oss fyrirbúid, hefir og géfid oss
sinn anda til pants hér uppá. 6. Vér erum
því jafnan øruggir og vitum ad á medan vér
búum í líkamanum erum vér fjarlægir Drottni.
7. Vér lifum í von en ekki skodun, 8. en
erum samt øruggir, jafnvel þó vér heldur vil-
jum fríast vid líkamann og vera hjá Drottni;
9. þess vegna kappkostum vér líka ad þóknast
Drottni, hvørt heldur vér erum íklæddir líkam-
anum, edur utan hans; 10. því allir hljót-
um vér ad birtast fyrir Krists dómstóli, svo
hvørr einn fái laun eptir sinni breytni í líkam-
anum, hvørt sem hún hefir verid gód ed-
ur vond.

11. Med því vér nú þekkjum ótta Drott-
ins, leitumst vér vid ad ávinna menn; Gudi erum
vér augljósir, 12. en eg vona ad eg og sé
þekktur ordinn af ydar samvitskum; því ekki
erum vér aptur farnir ad mæla fram med oss
vid ydur, heldur géfum vér ydur tilefni til ad
stæra ydur af oss a), svo ad þér hafid þad
þér gétid svarad þeim, sem stæra sig af því
útvortis, en ekki hjartalaginu. 13. Því hvørt
sem vér stærum oss, gjørum vér þad Guds
vegna b), edur vér erum hóglátir, er þad ydar
vegna. 14. Kjærleiki Krists þvíngar oss, 15.
med því vér ályktum svo, ad fyrst hann einn
er dáinn fyrir alla, svo séu þeir allir dánir;
og hann dó fyrir alla til þess, ad þeir, á med-
an þeir lifa, ekki framar lifi sér, heldur þeim,
sem fyrir þá er dáinn og upprisinn. 16. Þar
fyrir metum vér nú hédan í frá engann eptir
holdinu, því þótt vér jafnvel mettum Krist
eptir holdinu ádur, þá gjørum vér þad ekki
framar. 17. Því hvørr, sem er í Kristó, hann
er ordinn ný sképna, þad gamla er afmád, sjá!
allt er ordid nýtt, 18. og þad er allt af Gudi,
er forlíkadi oss fyrir Jesúm Krist vid sjálfann
sig og géfid hefir oss þad embætti, ad kunn-
gjøra þessa forlíkun; 19. nefnilega þad: ad
Gud hafi forlíkad heiminn vid sjálfann sig og
tilreikni ekki mønnum þeirra afbrot og hafi
sett oss til ad kunngjøra þessa forlíkun. 20.
Vér erum því Krists erinds-rekar; Gud líka,
sem áminnir fyrir vorn munn. Vér bidjum
því vegna Krists; látid ydur forlíka vid Gud;
21. því hann, sem aldrei þekkti synd, gjørdi Gud
ad synda-fórn vor vegna, svo ad vér fyrir
hann réttlættir yrdum.

## 6. Kapítuli.

Sama efni. Varar Korintumenn vid ad hafa mök vid vantrúada.

1. En svo sem medverkandi áminnum vér
hér um c), 2. ad þér ekki skulid medtaka Guds nád
til einkis. (Ritníngin segir: á hagkvæmri tíd
bænheyrda eg þig og á hjálpræðisins degi hjálp-
adi eg þér. Sjá! nú er sú æskilega tíd, sjá!
nú er dagur hjálpræðisins). 3. Vér géfum
engum ásteitingar-efni, svo embættid verdi ekki
fyrir lasti, 4. heldur tjáum oss í øllu, sem
Guds þjónustumenn, med mikilli þolinmædi í

V. 5. Róm. 8, 14—17. 2 Kor. 1, 22. V. 7. Róm. 8, 24. 1 Kor. 13, 12. Hebr. 11, 1. V. 9. 1 Jóh. 3, 3. V. 11. þ. e. hvarí sannur Guds ótti er innifalinn. Gal. 1, 10. 2 Kor. 4, 2. V. 12. a. 1, 14. 10, 8. V. 13. b. þ. e. svo Guds sé dýrdin. V. 14. Róm. 6, 11. V. 16. Matt. 12, 47—50. Gal. 6, 15. Fil. 3, 4—9. V. 17. sbr. Róm. 8, 1. V. 18. Róm. 5, 10. Kól. 1, 20. 1 Jóh. 2, 2. 4, 10. V. 19. Róm. 3, 24, 25. Sálm. 32, 1. V. 21. Esa. 53, 6—12. Róm. 8, 3. V. 1. c. nefnil. ad þeir skyldu láta sig forlíka vid Gud. 5, 20. V. 2. Esa. 49, 8.

þreyngíngum, neyd, ángist, undir høggum, í
fángélsi, á vorum hrakníngi, 5. í erfidi, vøk-
um og skorti; 6. med grandvøru líferni, þekk-
íngu, umburdarlyndi, blídlyndi, heiløgu hugar-
fari, falslausum kjærleika, 7. med sannleikans
kénníngu og Guds krapti; sem útbúna med
vopnum réttlætisins til sóknar og varnar, 8. í
heidri og vanheidri, hvørt vel er talad um oss
edur ílla. Vér álítustum svikarar, en finn-
umst þó sannordir; 9. erum lítilsvyrdtir, en
þó nafnkunnugir; erum nærri dauda, en sjá!
vér lifum samt; oss er refsad, en vér erum
þó ekki deyddir; 10. erum syrgjandi, en þó
jafnan gladir; fátækir, en audgum þó marga;
egum ekkért, en høfum þó allt.

11. Korintu-menn! eg hefi opnad minn
munn til ydar, eg hefi útbreidt fyrir ydur mitt
hjarta, þad er ekki þraungt um ydur í því,
12. en lítid rúm ætlid þér mér í ydrum hjørt-
um. 13. Til umbunar (eg tala til ydar, sem
barna minna), rýmkid einnig ydar hjørtu.

14. Dragid ekki ok med vantrúudum. Hvørt
samfélag hefir dygdin vid ódygdina, ljósid vid
mirkrid, 15. Kristur vid Belíal? hvørja hlut-
deild hefir sá trúadi med þeim vantrúada?
16. Hvad á Guds musteri skyldt vid musteri
skurdgodanna? Þér erud ens lifanda Guds
musteri, eins og Gud hefir sagt: eg vil búa á
medal þeirra og dvelja hjá þeim og eg vil
vera þeirra Gud og þeir skulu vera mitt fólk.
17. Farid því burtu frá þeim og skiljid ydur
vid þá — segir Drottinn —, 18. og snertid
ekki þad, sem vanheilagt er, þá skal eg taka
ydur ad mér og eg mun verda ydar Fadir og
þér skulud vera mínir synir og dætur, segir
Drottinn almáttugur. Kap. 7. v. 1. Elsk-
anlegir! þar ed vér høfum þvílíkt fyrirheiti,
þá hreinsum oss frá allri saurgun holdsins og
andans og fullkomnum helgun vora med
Guds ótta.

## 7. Kapítuli.

*Páll leggur nidur fyrir Korintu-mønnum tilgáng
síns fyrra bréfs. Talar um Títus.*

2. Géfid mér rúm hjá ydur, engum hefi
eg óréttt gjørt, engum spillt, engann ásælst. 3.
Eg segi ekki þetta ydur til áfellis, því eg hefi
ádur sagt, ad eg elskadi ydur svo, ad eg vildi
lifa og deya med ydur. 4. Eg er því djarf-
mæltur vid ydur; mikinn sóma hefi eg af yd-
ur; eg hefi nóga huggun og yfirgnæfanlega
gledi í øllum mínum þreyngíngum. 5. Þess vegna
þá vér komum til Makedoníu, hafdi hold vort
enga ró, en vorum allsstadar adþreyngdir;
útvortis var barátta, innvortis ótti; 6. en Gud,
sem huggar hina aumu, hann gaf oss hugg-
un med Títusar tilkomu. 7. Vér glødumst
ekki einúngis af komu hans, heldur og af þeirri
huggun, sem þér huggudud hann med. Hann
kunngjørdi oss ydar søknud, sorg og vandlæt-
íngu mín vegna, svo eg vard þar af enn þá
gladari. 8. Því þó eg hafi hriggt ydur med
bréfinu, ydrast eg þess ekki, þó eg ádur ydrad-
ist þess, því eg sje ad þetta bréf hrigdi ydur
einúngis um stundarsakir. 9. Nú gledst
eg, ekki af því ad þér hrigdust, heldur
af því þér hrigdust til betrunar; ydar
hrigd var eptir Guds vilja, svo ad þér
hafid engann skada af oss haft. 10. Sú
hrigd, sem er eptir Guds vilja, ablar

V. 7. Efes. 6, 11. ff. V. 15. Nefnil. Satan, sbr. 1 Kor. 10, 20. og Skgr. 1 Kóng. b. 18.
21. V. 16. 2 Mós. b. 29, 45. 3 Mós. b. 26, 11. 12. V. 17. sbr. Esa. 48, 20. 52, 11.
Esek. 36, 28. V. 2. Post. gb. 20, 33. 2 Kor. 11, 7—12. 12, 16. 17. 1 Tess. 2, 9. 2 Tess.
3, 8. V. 6. Kap. 3, 3. 4. V. 8. 1 Kor. 5. 2 Kor. 2, 3. 4. V. 9. Samanb. 2 Sam. b.
12, 13.

sáluhjálplegrar betrunar, hvørrar enginn ydr-
ast, en veraldleg hrigd ollir dauda. 11. Því
sjáid þad, ad þér hrigdust eptir Guds vilja,
hvílíkt kapp verkadi þad hjá ydur! já, enn
framar: afsakanir a), þykkju b), bligdan, ept-
irlángan, vandlætíngu, strángleika í hegníng-
unni; í øllu sønnudud þér, ad þér hreinir
værud í þessu efni. 12. Þar fyrir, þó ad eg
skrifadi ydur, þá var þad hvørki hans vegna,
sem óréttinn gjørdi, né hins, sem óréttinn leid,
heldur svo ydur þar af augljós yrdi umhygg-
ja mín fyrir ydur í Guds augliti.

13. Þess vegna huggast eg af ydar hugg-
un, en allra mest gladdi mig hvad Títus var
ánægdur, því hugur hans hefir endurnærst af
ydur øllum. 14. Eg þurfti ekki ad lída kinn-
roda fyrir þad, þó eg hefdi stært mig nokkud
af ydur fyrir honum, heldur eins og allt þad
var sannleiki, sem eg kénnda ydur, eins reynd-
ist mín hrósan vid Títus sønn; 15. og hon-
um er líka hjartanlega vel til ydar, því hon-
um er minnisføst allra ydar hlýdni, med
hvørsu miklum ótta og lotníngu þér tókud á
móti honum. 16. Eg er þess vegna gladur,
ad eg gét í øllu haft traust til ydar.

## 8. Kapítuli.

Páll hrósar ørlæti enna kristnu í Makedoníu og upp-
hvetur Korintu-menn ad feta í þeirra fótspor.
Hrósar Títus og bidur Korintu-menn taka vel á
móti honum og brædrum þeim, sem med honum
sendast.

1. Enn framar læt eg ydur vita, brædur!
þá nád Guds, sem sýnt hefir sig í søfnudun-
um í Makedoníu, 2. ad þeir, þrátt fyrir þær
miklu þreyngíngar, sem þeir hafa verid reynd-
ir med, hafa mikla gódvild sýnt og í sínni miklu
fátækt tekid ødrum fram í gnægu ørlæti. 3.
Eg géf þeim þann vitnisburd, ad þeir gjørt
hafa þad af sjálfs dádum, eptir efnum, já
framyfir efni sín. 4. Þeir bádu oss innilega
fyrir gáfu þeirra og samlags gjøf handa kristn-
um c) og þeir gjørdu betur d) enn vér høfdum
vænt, 5. þeir gáfu sjálfa sig, fyrst Drottni e) og
þar nærst oss eptir Guds vilja. 6. Þar fyr-
ir bad eg Títus um, ad hann, eins og hann
hafdi byrjad, fullkomnadi einnig hjá ydur þessa
gjøf; 7. svo ad eins og þér í øllu erud af-
brigdi, í trú, lærdómi og þekkíngu, allsslags á-
stundun og elsku til vor, séud þér líka ødrum
fremri í þessari gjafmildi; 8. þetta megid þér
ekki taka fyrir skipun, heldur segi eg þad vegna
þess, ad adrir eru svo kappsamir og til þess
eg reyni hvørt elska ydar er einlæg. 9. Þér
þekkid gjædsku Drottins vors Jesú Krists, ad
hann gjørdist fátækur ydar vegna, þó hann rík-
ur væri, svo ad þér af hans fátækt audgudust.
10. Eg segi mína meiníngu hér um: þad
gagnar ydur, sem þegar í fyrra byrjudud, ekki
einúngis ad gjøra, heldur og ad vilja f). 11.
Fullkomnid nú og verkid sjálft, svo ad eins og
viljinn er fús, eins sé og framkvæmdin eptir
efnunum; 12. því ef viljinn er gódur, þá er hvørr
þakknæmur eptir því, sem efni hans leyfa, en
ekki framyfir þad. 13. Ekki er þad meiníng
mín, ad adrir skuli hafa hægd, en þér þraung,
14. heldur ad jøfnudur á verdi og gnægd yd-

V. 11. a. nefnil. fyrir forsómun ydar ad reka syndarann úr søfnudinum. b. nl. vid þann seka. samanb. 2 Kor. 2, 6. vid 1 Kor. 5, 5. V. 12. 2 Kor. 2, 5. V. 2. 1 Tess. 2, 14. 2 Tess. 1, 4. 5. Fil. 4, 15. og f. V. 4. c. nl. bádu oss fara med þessa gáfu til Gydíngalands. d. þ. e. gáfu meira. samanb. Post. g. b. 11, 28. 29. V. 5. e. þ. e. Kristi. V. 9. Lúk. 9, 58. Fil 2, 7. Hebr. 12, 2. sbr. 9, 10. þ. e. í þekkíngu, dygd og farsæld. V. 10. f. nl. med fúsu gédi Kap. 9, 2. V. 11. Jak. 2, 15. 16. Ordsk. b. 3, 28. V. 12. 1. Jóh. 3, 17. samanb. Mark. 12, 43. Lúk. 3, 11. 5 Mós. b. 15, 7.

ar á nærverandi tíma, bæti úr hinna skorti, svo hinna gnægd aptur bæti úr ydar skorti og þannig verdi jøfnudur, 15. eins og skrifad er: sá, sem meira safnadi, hafdi ekki afgángs og sá, sem minna safnadi hafdi ekki skort.

16. En þakkir séu Gudi, er géfid hefir Títi hjarta þvílíka umhyggju fyrir ydur, 17. ad hann ekki einúngis lét eptir vorum tilmælum, heldur er sjálfur mjøg ákafur og fer sjálfviljuglega til ydar. 18. Med honum sendum vér þann Bródur, er vídfrægur er í øllum søfnudum fyrir nádarbodskapinn; 19. en ekki einúngis þad, heldur er hann og útvalinn af søfnudunum, til ad fara med oss med þessa gáfu, er vér høfum samandregid, Drottni sjálfum til dýrdar og til merkis uppá vorn fúsa vilja þar til. 20. Vér høgum því svo til þess enginn géti lastad medferd vora á þessari ríkuglegu gáfu, er vér høfum komid til leidar. 21. Vér stundum þad, sem gott er, ekki einúngis fyrir Drottni, heldur og fyrir mønnum. 22. Med þessum sendum vér annann Bródur vorn, er vér í mørgu og optsinnis høfum reynt kostgjæfinn, og nú enn framar kostgjæfinn, vegna þess mikla trausts, er hann hefir til ydar. 23. Hvad Títus áhrærir, er hann vor medbródir og medhjálpari hjá ydur og hvad hina brædur vora snertir, þá eru þeir safnadanna Postular og kristninnar sómi. 24. Audsýnid þessum fyrir safnadanna augsýn merki uppá elsku ydar og þann lofstýr, er vér høfum géfid ydur.

## 9. Kapítuli.

Páll hrósar Korintu-mønnum og upphvetur til ad géfa ríkuglega.

1. Hvad hjálpina til hinna heiløgu áhrærir, er engin þørf á ad eg skrifi ydur; 2. því eg þekki ydar góda vilja og hefi hrósad ydur fyrir hann hjá þeim í Makedoníu, nefnilega: ad Akkaja hafi verid reidubúin fyrir ári sídan og ad ydar alúd hafi upphvatt marga. 3. En eg sendi þessa brædur, svo ad sá lofstýr, sem vér høfum géfid ydur í þessu tilliti, verdi ekki ad engu og ad þér séud undirbúnir eins og eg hefi sagt, 4. svo ad eg þurfi ekki ad lída kinnroda (eg vil ekki segja sjálfir þér) fyrir þetta traust mitt, ef nokkrir frá Makedoníu koma med mér og finna ydur óvidbúna. 5. Vér héldum þess vegna naudsynlegt ad bidja brædurnar ad fara á undan til ydar og undirbúa ydar ádur lofada velgjørníng, svo ad liggi reidubúinn, svo sem ørlátleg gáfa, en ekki sem dregin undan neglum ydar. 6. Því þad segi eg: ad sá, sem sparlega sáir, muni og sparlega uppskéra og sá, sem ørlátlega sáir, muni og ørlátlega uppskéra. 7. Hvørr géfi eptir sinni hugarlund, ekki med hriggu gédi edur naudúng, því Gud elskar gladann gjafara; 8. en megnugur er Gud ad láta ydur hafa gnægd af øllu gódu, svo ad þér ætíd hafid af øllu gnægd til allra gódra verka; 9. því skrifad er: hann útbýtti, gaf þeim þurftugu, hans gjædska varir ad eilífu. 10. En sá, sem sádmanninum géfur sædi og braud til fædslu, hann mun og géfa ydur sád og margfalda þad og auka ávøxt ydar gjædsku, 11. svo ad þér audugir verdid til allsslags ørlætis, sem kémur því til leidar, ad Gudi gjørast þakkir fyrir oss; 12. því þjónusta ad þessu verki bætir ekki einúngis úr þørfum heilagra, heldur verdur og orsøk til, ad margir innilega þakka Gudi, 13. og vegna þessa votts ydar gódsemdar, lofa þeir

V. 15. 2 Mós. b. 16, 18. V. 20. þ. e. leidt í grun, ad vér høfum dreigid nokkud af henni undir sjálfa oss. V. 21 Filipp. 4, 8. 1 Pét. 2, 12. V. 1, Post. g. b. 11, 29. V. 6. sbr. Ordskv. b. 11, 24. 25. 22, 8. 9. Gal. 6, 7. 8. V. 7. sbr. 5 Mós. b. 15, 10. Róm. 12, 8. V. 9. Sálm. 112, 9.

Gud fyrir ydar hlýdni vid nádarlærdóm Krists,
sem þér medkénnid og fyrir ydar einlæga ør-
læti vid þá og alla, 14. og bidja fyrir ydur
og elska ydur hjartanlega fyrir Guds ydur yfir-
gnæfanlega veittu nád. 15. Lofadur sé Gud
fyrir sína ómrædilegu nádargjøf!

## 10. Kapítuli.

*Páll hrindir brixlum mótstodu-mannanna, er søgdu ad hann væri í nærvern lítillátur, en í fjærvern stolltur og myndugur.*

1. Eg hinn sami Páll, sem sagdur er lítil-
látur í nálægd, en myndugur í fjærlægd, á-
minni ydur med blídlyndi og hógværd Krists.
2. Eg bid ydur ad láta mig ekki nálægann
þurfa ad beita þeim myndugleika, sem eg hefi
ásett mér ad beita vid nokkra, sem halda ad
vér gaungum eptir holdinu. 3. Vér gaung-
um ad sønnu í holdinu, en vér strídum þó
ekki eptir holdinu; 4. því vopn vorrar herfar-
ar eru ekki holdleg, heldur fyrir Guds hjálp
krøptug til ad nidurbrjóta hervirkin a); 5. vér
ónýtum vélabrøgd og hvørja hæd, sem hefur
sig upp á móti Guds þekkíngu og hertøkum
hvørja hugsun gégn Krists hlýdni 6. og erum
reidubúnir ad refsa allskonar óhlýdni þegar
ydar hlýdni er ordin fullkomin. 7. Lítid þér
á hid ytra? ef nokkurr er um þad med sjálfum
sér viss, ad hann er Krists, hann rádi aptur
þar af, ad eins og hann er Krists, svo erum
vér og einnig. 8. Já, þó eg vildi enn frem-
ur stæra mig af makt þeirri, er Drottinn hef-
ir oss gefid ydur til uppbyggíngar, en ekki til
tjóns, þá mundi eg ekki þar fyrir verda til
skammar. 9. En svo ad ekki skuli þad sýnast,
sem eg vilji hræda ydur med bréfunum; 10.
(því bréfin, segja menn, eru þúng og krøptug,
en nærvera líkhamans veik og rædan fyrilitleg),
11, þá hugleidi þvílíkir, ad eins og vér erum
fjærverandi í bréfunum í ordi, eins munum
vér verda nærverandi í verki. 12. Ekki gét
eg fengid þad af mér ad telja mig med þeim
edur samjafna mér vid þá, sem gorta af sjálf-
um sér; en þessa, sem mæla sig sjálfa vid
sjálfa sig og bera sig saman vid sjálfa sig,
skortir skilníng. 13. En vér stærum oss ekki
af því, sem oss ekki er útmælt b), heldur af
því, ad vér, samkvæmt þeim takmørkum, sem
oss eru af Gudi útmæld, erum komnir allt
til ydar. 14. Ekki teygjum vér oss út fyr-
ir vor takmørk, svo sem þeir er ekki hafa til
ydar komid, því ad vér høfum sannarlega til
ydar komid med Krists nádarbodskap. 15.
Ekki stærum vér oss af því, sem oss er ekki
útmælt, af annara vinnu; en høfum þá von,
ad þegar trú ydar eblist, munum vér, med
ydar adstod, enn vídfrægari verda innan oss
fyrirsettra takmarka, 16. og géta bodad þeim
nádar lærdóminn, sem búa hinumeginn vid
ydur; en ekki ætlum vér ad hrósa oss í ann-
ara umdæmi af því, sem ádur er fullkomnad.
17. Sá, sem hrósar sér, hann hrósi sér í
Drottni; 18. því ekki er sá, sem lofar sjálf-
ann sig réttskikkadur, heldur sá, sem lofstýr fær
af Drottni.

## 11. Kapítuli.

*Páll forsvarar álit sitt og varar Korintu-menn vid villukénnurum. Seigist hafa kénnt lærdóminn ókeyp-*

V. 2. þ. e. hegdum oss eptir vorum holdligu girndum. V. 3. þ. e. erum breiskleika undirorpnir eins og adrir menn. V. 4. a. þ. e. þad sem er gégn Guds vilja. Jer. 1, 10. V. 7. 1 Kor. 14, 37. þ. e. Krists sérlegur sendibodi. V. 8. Kap. 13. 10. sbr. Matt. 16, 19. V. 13. b. þ. e. vér stærum oss ekki af því ad hafa bodad kristni vídar, enn vér høfum bodad hana. V. 17. þ. e. hrósi nád og adstod þeirri, sem Gud hefir veitt honum, sbr. Jer. 9, 24. V. 18. sbr. Ordskv. b. 24, 12.

is, til ad gjora kinnroda fals-postulunum, og sýnir ad hann hafi meira unnid og þolad fyrir lærdómsins sakir enn þeir.

1. Ydur ber dálítid ad umbera fáfengilegleika minn; sannlega munud þér og gjøra þad. 2. Því med gudlegri vandlætíngu vanda eg um vid ydur, því eg hefi fastnad ydur manni, svo sem óflekkada mey, er leidast á til Krists. 3. En eg óttast, ad eins og høggormurinn tældi Evu med sínu flárædi, eins muni ydar hugskot dragast frá einlægni vid Krist. 4. Því þá einhvørr kémur, er bodar annann Jesúm enn vér høfum bodad, edur þér medtakid annann anda enn þér hafid medtekid, edur annann nádar-lærdóm enn ydur hefir kénndur verid, umberid þér þad vel. 5. Eg held mig vera engu minni enn þá helstu Postula; 6. þó mig bresti mælsku, brestur mig samt ekki þekkíngu, en ávalt og í øllu hefi eg sýnt mig ydur, eins og eg er.

7. Edur hefi eg kannské syndgad í því, ad eg lítillækadi mig, svo ad þér upphefdust? ad eg ókeypis kénndi ydur Guds nádar-lærdóm? 8. Adra søfnudi rupladi eg og tók af þeim kaup til ad þéna ydur og þó ad mig bristi á medan eg var hjá ydur, þá var eg samt engum til byrdi. 9. Brædur þeir, sem komu frá Makedoníu bættu úr mínum skorti. Í øllu varadist eg ad vera ydur til þýngsla og mun varast. 10. Svo sannarlega, sem Krists sannsøgli er í mér, skal þessi mín hrósan ekki nidurþøggud verda í Akkaju hérudum. 11. Hvørs vegna? mun þess vegna ad eg ekki elska ydur? Gud veit þad. 12. En eg gjøri þad og mun gjøra, til ad svipta þá tækifæri, er tækifæris leita ad verda oss líkir í því, sem þeir stæra sig af. 13. Þessir Fals-Postular eru sviksamlegir verka-menn og taka á sig mind Krists Postula, 14. og þad eru ekki undur, því Satan sjálfur snýr sér í ljóss engil; 15. þad er því ekki kyn, þótt þjónar hans taki á sig mind réttlætisins þjóna. Endalok þeirra verda líka sambodin verkunum.

16. Enn aptur bid eg, ad enginn áliti mig fyrir dára; en ef þér gétid ekki annad, þá medtakid mig sem dára, svo eg géti líka dálítid hrósad mér. 17. Þad, sem eg nú tala, tala eg ekki eptir Drottins anda, heldur er þad talad í heimsku, í trausti sjálfshrósins; 18. med því margir stæra sig af því, sem holdlegt er, hlýt eg og ad stæra mig af því. 19. Þér umberid gjarnan þá hina fávísu, því þér erud sjálfir hyggnir; 20. því þér umberid þad, þó einhvørr hneppi ydur í þrældóm a) þó einhvørr uppeti ydur, hafi af ydur, hefji sig upp yfir ydur, slái í ydar ásjónu b). 21. Eg segi þetta med blygdun, því í þessu høfum vér sýnt oss veika c), en af því, sem adrir géta hrósad sér, (fávíslega er talad) af því gét eg hrósad mér líka. 22. Séu þeir hebreskir, þá er eg þad og: séu þeir Ísraelítar, þá er eg þad og; 23. séu þeir Abrahams nidjar, sjá! er eg þad og; séu þeir þjónar Krists, (heimskulega tala eg) þá er eg þad enn framar. Meira hefi eg unnid, fleiri høgg þolad, optar verid í fángelsi og opt í daudans hættu. 24. Af Júdum hefi eg fimmsinnum verid sleginn 40 høggum, einu fátt í.

---

V. 3. 1 Mós. b. 3, 14. Jóh. 8, 44. V. 4. Gal. 1, 8. 9. V. 5. Gal. 2, 2—14. V. 7. 1 Kor. 4, 12. 9, 4. 6. 11. 15. V. 9. Fil. 4, 15. 16. V. 10. Matt. 5, 37. V. 12. Páll vildi ekkért þyggja af Korintu-mønnum, til þess ad sýna, ad hann ekki bodi kristni sér til uppeldis og ad fallskénnendurnir lýsi sér strax þar í honum ólíka. V. 13 Matt. 7, 15. 16. Fil. 3, 2. V. 20. a. nefnil. undir Mósis laga ok. b. þ. e. opinberléga smáni ydur. V. 21. c. nefnil. í því, ad brúka ekkért stærilæti.

25. Þrísvarsinnum hefi eg húdstrýktur verid,
einusinni verid grýttur, þrísvarsinnum lidid skip=
brot, heilt dægur hefi eg hrakist um kring í
regin hafi. 26. Opt hefi eg á ferdum verid,
opt komist í hættu í ám, opt í háska af ræníng=
jum, í háska af løndum mínum, í háska af
heidnum mønnum; verid í háska í borgum og
í eydimerkum, í háska á sjó, í háska af flá=
rádum brædrum. 27. Opt haft erfidi og sorg,
vøkur, sult, þorsta og føstur, kulda og klædleysi.
28. Auk annars: daglegt ónædi af yfirhlaupi
manna og áhyggju fyrir øllum søfnudum. 29.
Hvørr er svo veikur, ad eg taki ekki þátt þar í?
hvørr hrasar, svo eg ekki stikni? 30. Ef eg
mætti hrósa mér, vilda eg hrósa mér af bág=
indum mínum. 31. Gud og Fadir Drottins
vors Jesú Krists, sem ad eilífu sé vegsamad=
ur, veit ad eg lýg ekki. 32. Í Damaskus ætl=
adi Lands=høfdíngi Aretas Konúngs ad grípa
mig og hafdi sett vørd um borgina, 33. en eg
var látinn nidursíga í kørfu í gégnum vind=
auga á borgarveggnum og komst þannig úr
þeirra høndum.

## 12. Kapítúli.

Páll hrósar sér af sínum opinberunum, kraptaverk=
um og ad hann hafi ekki verid søfnudinum til
þýngsla. Segist segja þetta þeim til uppbygg=
íngar og svo ad hann ekki þurfi brúka hørku,
þegar hann kémur.

1. Þad gagnar ad vísu ekki ad eg hrósi
mér; þó vil eg minnast á sjónir og opinber=
anir Drottins. 2. Eg þekki mann í Kristó,
er fyrir 14 árum var uppnuminn allt uppí
þridja himin (hvørt hann var í líkam=
anum, edur utan líkama, þad veit eg ekki,
Gud veit þad). 3. Eg veit ad þessum manni
var upprykkt í Paradís, (hvørt í líkama, edur
utan líkama, þad veit eg ekki, Gud veit þad)
4. og ad hann heyrdi þar óumrædanleg ord,
sem engum manni er unnt ad tala. 5. Af þessu
vil eg hrósa mér, en af sjálfum mér vil eg ekki
hrósa mér, nema þad væri af bágindum mín=
um. 6. En þó ad eg vildi hrósa mér, mundi
eg ekki dárlegur finnast, því eg segdi sannleika,
en eg skirrist vid þad, svo ad einginn skuli
þenkja hærra um mig, enn hann sjer, edur
heyrir af mér. 7. En til þess ad eg ekki skuli
upphrokast af mikilleik opinberananna, er mér
fleinn géfin í holdid, Satans Engill, ad hann
slái mig, svo ad eg skuli ekki stærilátur verda. 8.
Þess vegna hefi eg þrisvar bedid Drottinn
um, ad hann færi frá mér; 9. en hann hefir
svarad mér: lát þér nægja mína nád, því
minn kraptur sýnir sig fullkominn í veikleikan=
um; þar fyrir vil eg helst hrósa mér af mín=
um þjáningum, svo ad kraptur Krists taki sér
bústad yfir mér a). 10. Þar fyrir er eg med
glødu gédi í veikleika, fyrirlitníngu, neyd, of=
sóknum og þreyngíngum vegna Krists, því midt
í veikleikanum er eg máttugur.

11. Dárlega hefi eg nú talad, en þér hafid
neydt mig til þess, því eg átti ad lofast af yd=
ur; því í engu er eg minni enn þeir helstu Post=
ular, þó eg sé ekkért. 12. Postula teikn eru
gjørd medal ydar í allri þolinmædi med táknum
og stórmerkjum og kraptaverkum. 13. Hvar
í erud þér þá minni enn adrir søfnudir, nema
í því, ad eg hefi ekki verid ydur til byrdi;
fyrirgéfid mér þenna órétt! 14. Sjá, nú í
þridja sinni er eg ferdbúinn ad koma til ydar,

V. 25. Post. g. b. 16, 22. Post. g. b. 14, 19. V. 26. Gal. 2, 4. samanb. vid Post. g. b. 15, 24. V. 29. nl. í þekkíngu og hlýdni vid Krists lærdóm, samanb. 1 Kor. 8, 13. 9, 22. þ. e. mér svídi þad ekki sárt. V. 30. Kap. 12, 5. 9. V. 33. Post. g. b. 9, 24. og eptirf. V. 2. Post. g. b. 22, 17. V. 9. a. sé sífeldt med mér verkandi. V. 11. 1 Kor. 3, 7. 15, 9. Efes. 3, 8. V. 12. sbr. 1 Kor. 9, 1. 2. V. 13. Kap. 11, 8. 9. 1 Tess. 2, 9.

en ekki mun eg verda ydur til byrdi, því ekki sækist eg eptir eigum ydar, heldur ydur sjálfum, því ekki ega børnin ad draga saman fyrir foreldrana, heldur foreldrarnir fyrir børnin. 15. Fús er eg til ad verja mínu, já, útgéfa sjálfann mig fyrir ydar sálir, því eg elska ydur innilega, þó þér elskid mig lítid. 16. En látum svo vera ad eg hafi ekki sjálfur verid ydur til byrdi, en máské verid slægur og veidt ydur med brøgdum? 17. Máské eg hafi látid einhvørn, sem eg sendi til ydar, hafa af ydur? 18. Eg bad Títum ad fara og sendi annann bródur med honum; mun Títus hafa féflett ydur? Leiddi ekki sami andi oss báda og fetudum vér ekki í sømu fótspor?

19. Þér þenkid máské á ný, ad eg sé ad forsvara mig fyrir ydur? Fyrir augliti Guds svo sem Krists þjón, tala eg allt þetta, elskanlegir! ydur til uppbyggíngar, 20. því eg óttast ad þegar eg kém, muni eg ekki finna ydur þvílíka, sem eg vil, og ad ydur muni finnast eg sé ekki eins og þér viljid; ad medal ydar séu deilur, metníngur, ofstopi, þráttanir, baktal, kvis, drambsemi, óródi; 21. eg óttast ad Gud muni audmýkja mig hjá ydur, þá eg kém aptur, og ad eg hryggi marga, sem ádur syndgudu og ekki hafa snúid huga sínum frá saurlífi, frillulífi og ótérlegum lifnadi, sem þeir ádur drýgdu.

## 13. Kapítuli.

*Páll gjørir rád fyrir ad koma enn á ný til Korintu. Áminnir til betrumar, svo ad hann þá ekki þurfi ad sýna hørku. Gódar óskir.*

1. Þegar eg í þridja sinni kém til ydar, skal sérhvørt mál stadfestast med tveggja, edur þriggja manna vitnisburdi. 2. Eg hefi sagt þad ádur og segi þad nú í annad sinn sem nærverandi, þó nú fjærverandi þeim, sem ádur hafa syndgad og øllum ødrum, ad eg muni ekki hlífa þeim þegar eg kém aptur. 3. Med því þér krefjid røksemd fyrir því, ad Kristur tali í mér, — hann hefir þó ekki sýnt sig ómáttugann medal ydar, heldur máttugann; 4. því jafnvel þó hann væri krossfestur í veikleika, lifir hann nú fyrir Guds krapt, sømuleidis og, þó ad vér veikir séum hans vegna, munum vér fyrir Guds krapt ásamt honum lifa hjá ydur. — 5. Reynid ydur sjálfa hvørt þér erud í trúnni, prófid ydur sjálfa; edur þekkid þér ydur ekki sjálfa, ad Jesús Kristur er í ydur, nema þér séud rækir. 6. En eg vona, ad þér munid komast ad raun um, ad vér séum ekki rækir. 7. Þess bid eg Gud, ad eg þurfi ekkért íllt ad gjøra ydur; ekki þessvegna, ad þad skuli sjást ad vér erum duglegir, heldur til þess, ad þér gjørid þad, sem gott er, þó vér þar fyrir sýnast kynnum midur áreidanlegir. 8. Því ekkért megnum vér gégn sannleikanum, heldur einúngis med honum. 9. Vér gledjumst þó ad vér séum veikir, ef þér erud sterkir; ydar leidréttíng er þad, sem vér bidjum Gud um. 10. Þess vegna skrifa eg þetta fráverandi, ad eg nærverandi ekki þurfi ad brúka hørku, eptir þeim myndugleika, sem Drottinn hefir géfid mér ydur til uppbyggíngar, en ekki til skada.

11. Ad endíngu, brædur! verid gladir, fullkomnir, upphvetjid hvørr annann, verid samhuga og fridsamir, þá mun kjærleikans og fridarins Gud vera med ydur. 12. Heilsid hvørr ødrum med heiløgum kossi; ydur heilsa allir heilagir. 13. Nád Drottins Jesú Krists, kjærleiki Guds og hluttekníng heilags Anda, sé med ydur øllum!

V. 18. Kap. 8, 6. 22. V. 21. Kap. 13, 10. V. 1. 5 Mós. 6. 19, 15. V. 4. Fil. 2, 7. 8. Opinb. b. 1, 18. V. 5. samanb. Róm. 8, 7-9.

# S. Páls Pistill til Galatsíu-manna.

## 1. Kapituli.

Páll furdar sig á ad Galatsíu-menn hafi látid sig leida frá réttum lærdómi Krists. Segist af Gudi vera kalladur til Postula embættisins.

1. Páll Postuli (hvørki settur af mønnum né ad nokkurs manns tilhlutun, heldur af Jesú Kristi og Gudi Fødur, sem uppvakti hann frá daudum), 2. og allir brædurnir, sem hjá mér eru, 3. óskum søfnudunum í Galatsju nádar og fridar af Gudi Fødur og Drottni vorum Jesú Kristi, 4. sem vegna vorra synda, útgaf sjálfann síg, ad vilja Guds og vors Fødurs, svo ad hann frelsadi oss frá þessari yfirstandandi vondu øld. 5. Gudi sé dýrd frá eilífd til eilífdar, Amen!

6. Mig furdar, ad þér svo fljótt skyldud láta snúa ydur frá þeim, sem kalladi ydur med lærdómi Krists, til annars nádar lærdóms, 7. sem þó er ekki annar til; en meiníngin er: ad nokkrir eru, sem trubla ydur og vilja rángfæra Krists nádar lærdóm; 8. en þó ad vér, edur Engill frá himni bodadi ydur nádar lærdóminn ødruvísi, enn eg hefi kénnt ydur, hann sé bølvadur. 9. Já! eins og eg hefi ádur sagt, svo segi eg nú aptur: ef nokkurr kénnir ydur annann nádar lærdóm, enn þann, sem þér hafid numid, sá sé bølvadur. 10. Mun eg nú vera ad koma mér inn hjá mønnum edur Gudi? edur leitast vid ad þókknast mønnum? ef eg enn þá væri ad leitast vid ad þókknast þeim, þá væri eg ekki Krists þjón. 11. En þad læt eg ydur vita, brædur! ad sá lærdómur, sem eg kénndi, er ekki af mønnum; 12. hvørki hefi eg medtekid né lært hann af mønnum, heldur fyrir opinberun Jesú Krists; 13. því þér hafid haft fregn af hegdun minni fordum, á medan eg héldt vid Gydínga trúna, ad eg ákaflega offókti og eydilagdi Guds søfnud og var fremri flestum løndum mínum mér samtída, 14. í fastheldni vid Gydínga trúna og í ad vandlæta um forfedranna setnínga.

15. En þá Gudi, (sem útvaldi mig frá módurlífi a) og af nád sinni kalladi) þókknadist ad opinbera mér sinn Son, 16. svo ad eg bodadi hann medal heidinna þjóda, þá strax tók eg ekki hold og blód í rád med mér; 17. ekki heldur fór eg upp til Jerúsalem, til þeirra, sem á undan mér voru ordnir Postular, heldur fór eg til Arabíu og þadan snéri eg aptur til Damaskus. 18. Sídar ad þrem árum lidnum, fór eg upp til Jerúsalem, til ad kynnast vid Pétur og dvaldi hjá honum í 15 daga, 19. en engann fann eg annann af Postulunum, nema Jakob, bródur Drottins. 20. Gud veit ad eg lýg þad ekki, sem eg nú skrifa. 21. Eptir þetta kom eg í landsálfur Sýrlands og Silisíu. 22. Eg var þá enn ad ásýndum ókunnugur þeim kristnu søfnudum í Gydíngalandi; 23. en þeir høfdu einúngis frétt, ad sá, sem ádur hafdi offókt þá, kénndi nú

V. 1. Tít. 1, 3. Kap. 1, 12. Post. gb. 2, 24. 32. Efes. 1, 20. V. 3. Róm. 1, 7. f. V. 4. Matt. 20, 28. Gal. 2, 20. Efes. 5, 2. 1 Jóh. 5, 19. Matt. 1, 21. Tít. 2, 14. V. 6. Kap. 5, 7. 8. V. 7. sbr. Post. g. b. 15, 1. V. 10. sbr. 2 Tess. 2, 4. V. 12. Efes. 3, 3. V. 13. Post. g. b. 9, 1. 22, 4. ff. V. 14. Fil. 3, 6. V. 15. a. Jer. 1, 5. Post. g. b. 9, 5. 15. 16. 26, 15—18. V. 16. Matt. 16, 17. V. 18. Post. g. b. 9, 26. V. 19. Mark. 6, 3. V. 21. Post. g. b. 9, 30. V. 23. Post. g. b. 9, 21.

þá trú, hvørri hann ádur eyddi, og vegsømudu Gud fyrir mig.

## 2. Kapítuli.

*Páll segir frá vidkynníngu sinni vid Postulana og einkum vid Pétur. Kénnir, ad réttlætíngin komi af trúnni.*

1. Fjórtán árum sídar fór eg aptur upp til Jerúsalem, ásamt med Barnabas og tók þá Títum med mér. 2. Þá ferd stofnadi eg eptir opinberun og skírdi þeim þar frá, en sérílagi þeim helstu, hvílíkur sá lærdómur væri, sem eg kénndi heidnum þjódum, ad eg enganveginn hlypi forgéfins, edur hefdi hlaupid; 3. en ekki var Títusi, Grískum manni, sem var med mér, þreyngt til ad láta umskéra sig. 4. En ferdina fór eg vegna þeirra fals-kristnu, er smeygt høfdu sér inn, til ad njósna hvada frelsi vér brúkudum í Jesú Krists trú, svo ad þeir gjætu hneppt oss í þrældóm. 5. Undan þessum vilda eg ekki láta, ekki einusinni um stundar sakir, svo ad sannleiki lærdómsins vidhéldist hjá ydur. 6. Mig skiptir engu í hvørsu miklu áliti þeir eru, sem helstir eru haldnir, (Gud fer ekki ad mannvyrdíngum), þeir hinir helstu hafa eingu vid minn lærdóm bætt; 7. heldur gagnstædt, þegar þeir sáu ad mér var trúad fyrir ad kénna enum óumskornu, eins og Pétri enum umskornu, 8. (því sá, sem hafdi eblt Pétur til hans Postula embættis medal enna umskornu, hefir eins eblt mig medal heidinna þjóda), 9. og lærdu ad þekkja hvílík nád mér var veitt; þá réttu þeir Jakob, Kefas a) og Jóhannes, sem eru haldnir máttarstólpar, bródurlega ad mér og Barnabasi hønd sína, uppá þad, ad vér skyldum vera Postular heidinna þjóda, en þeir hinna umskornu. 10. Einúngis beiddu þeir oss, ad eg minntist fátækra og þad hefi eg líka kappkostad ad gjøra.

11. En þegar Pétur kom til Antiokiu, fann eg ad vid hann uppí opin augun, því hans breytni var adfinníngar verd. 12. Því ádur enn nokkrir komu frá Jakob, hafdi hann samneyti vid heidna menn b) en eptir þad ad þeir voru komnir, dró hann sig í hlé og skildi sig frá þeim, því hann óttadist þá umskornu c), 13. adrir Gydíngar fóru þá og ad hræsna med honum, svo ad jafnvel Barnabas flæktist med í sømu hræsni. 14. En þegar eg sá, ad þeir gengu ekki beint eptir sannleika lærdómsins, sagdi eg vid Pétur í allra áheyrn: úr því þú, sem ert Gydíngur, fylgir ekki Gydínga, heldur heidíngja háttum, því neydir þú þá heidíngja ad lifa eptir Gydínga sidum. 15. Vér erum ad ætterni Gydíngar, en ekki bersyndugir heidíngjar. 16. En med því vér vitum, ad madurinn réttlætist ekki af verkum løgmálsins, heldur fyrir trúna á Jesúm Krist, þá høfum vér tekid trú Jesú Krists, svo vér réttlættumst af trú Krists, en ekki verkum løgmálsins, „því engin madur réttlætist af verkum løgmálsins." 17. En ef vér, sem kappkostum ad réttlætast í Kristi sjálfir, finnumst syndarar, er þá Kristur þjón syndarinnar? fjærri fer því. 18. Því færi eg aptur ad uppbyggja þad, sem

V. 1. Post. g. b. 15, 2. V. 2. Fil. 2, 16. V. 4. Post. gb. 15, 24. 25. þ. e. undir Mósis laga ok. V. 6. 5 Mós. b. 10, 17. 2 Kron. 19, 7. Job. 34, 19. Róm. 2, 11. f. V. 7. Post. gb. 15, 7. og eptirf: v. v. 22, 21. Róm. 11, 13. V. 8. Post. gb. 2, 14. ff. 41. Post. gb. 9, 15. 20—22. V. 9. a. Pétur. Post. gb. 13, 2. V. 10. Post. gb. 11, 30. Róm. 15, 25. 26. 1 Kor. 16, 1. V. 12. b. kristna, sem ádur høfdu heidnir verid. c. kristna, sem ádur høfdu verid Gydíngar. Post. gb. 10, 28. V. 14. Post. gb. 15. 10. 10, 28. V. 16. Post. gb. 13, 38. Róm. 3, 20. 28. f. V. 16. Sálm. 143, 2. V. 17. Róm. 5, 1. ff. Róm. 6, 1. ff. Tít. 3, 8.

eg ádur niðurbraut, þá sannadi eg þar med,
ad eg hefdi ádur ránglega breytt. 19. Eg
er vegna løgmáls a) løgmálinu b) dáinn c),
svo eg Gudi lifi. 20. Eg er Kristi krossfest-
ur. Eg lifi nú ekki framar, heldur lifir Krist-
ur í mér og þad eg nú lifi í holdinu, þad lifi
eg í trú Guds sonar, sem elskadi mig og
gaf sig sjálfann út fyrir mig. 21. Ekki vil
eg gjøra ad engu velgjørníng Guds; því ef
réttlætíngin fengist fyrir løgmálid, þá væri
Kristur til einkis dáinn.

## 3. Kapítuli.

Páll lastar Galatsíu-menn, ad þeir aptur hafi snú-
id til hlýdni vid løgmálid og sannar af Abrahams
dæmi, ad Guds nád ødlist fyrir trú, en hvørki
fyrirheitid né løggjøfin hafi ónýttst fyrir þad.

1. O þér fávísu Galatar! hvørr hefir villt
sjónir fyrir ydur, fyrir hvørra augum Jesús
Kristur er svo skírlega afmáladur, eins og væri
hann medal ydar krossfestur. 2. Um þad vil
eg einúngis frædast af ydur, hvørt þér hafid
andann ødlast fyrir verk løgmálsins ellegar fyr-
ir bodskap trúarinnar? 3. En hvad þér erud
heimskir! þér, sem birjudud í andanum d),
ætlid þér nú ad enda í holdinu e)? 4. A.
þvílíkt f) ad hafa komid fram vid ydur til
einkis, ef þad er til einkis? 5. Sá, sem yd-
ur veitir andann og sýnir sinn krapt á ydur,
er þad løgmáls verkunum ad þakka, edur bod-
un trúarinnar? 6. Þad ad „Abraham treysti
Gudi var honum til réttlætis reiknad", 7. eins
megid þér vita, ad þeir eru réttir Abra-
hams synir, sem trúadir eru. 8. Ritníngin,
sem fyrir sá, ad Gud mundi réttlæta þjódirn-
ar fyrir trúna, gaf fordum Abraham þad
fyrirheiti: allar þjódir skulu af þér blessun
hljóta. 9. Allir trúadir menn munu því bless-
un ødlast med þeim trúada Abraham. 10.
En svo margir, sem binda sig vid løg-
máls verkin, þeir eru undir bølvun, því skrif-
ad er: „bølvadur sé hvørr sá, sem ekki held-
ur sér fast vid allt þad, sem í løgmáls bókinni
skrifad er til ad breita eptir því." 11. En
þad er bert ad enginn getur fyrir Gudi rétt-
látur ordid af løgmálinu, „því sá réttláti mun
af trúnni sæll verda" g). 12. En løgmálid á
ekki skyldt vid trúna, heldur (er kvedid svo ad
ordi) „sá, sem gjørir þad h), mun þar fyrir
lifa". 13. Kristur hefir keypt oss undan
bølvun løgmálsins, med því hann vard bølvan
fyrir oss i), því skrifad er: „bølvadur sé sá,
sem á tré hángir", 14. til þess ad heidn-
um þjódum hlotnast skyldi med Jesú Kristi
blessan Abrahams k), svo ad vér ødlast skyld-
um fyrirheit andans l) fyrir trúna. 15. Bræd-
ur mínir! eg tek dæmi af daglegu lífi: enginn
ónýtir edur bætir vid þá rádstøfun manns, sem
stadfest er; 16. en Abraham voru fyrirheitin

---

V. 19. Róm. 7, 4. 11. Róm. 14, 7. 2 Kor. 5, 15. 16. 1 Tess. 5, 10. a. nl. Krists løgmáls. b) Mósis løgmáli. c. þ. e. Eg held ekki leingur, sídan Krists lærdómur upplýsti mig, ad eg ødlist Guds hylli med adgjætslu Mósis laga, heldur med trausti til Guds fødurlegu nádar og hlýdni vid Krists bod. V. 20. Róm. 6, 6. Gal. 5, 24. Jóh. 15, 4. 10. V. 21. Heb. 7, 11. V. 2. Heilags anda gjafir. Post gb. 2, 38. V. 3. d. þ. e. á því fullkomna, nl. ad hlýdnast Krists løgmáli. e. þ. e. á því ófullkomna, sbr. Kap. 4, 3. 9. Kól. 2, 16. 17. V. 4. f. nl. nád-arbodskapurinn. V. 5. Róm. 10, 8. 17. V. 6. 1 Mós. b. 15, 6. sbr. Jak. 2, 23. V. 7. Róm. 4, 11. 12. V. 8. Post. gb. 15, 9. 1 Mós. 12, 3. 18. V. 10. 5 Mós. 27, 26. sbr. Róm. 4, 15. V. 11. Kap. 2, 16. g. Habak. 2, 4. V. 12. h. nl. vardveitir Guds bodord, 3 Mós. b. 18, 5. Esek. 20, 11. Róm. 10. 5. V. 13. 2 Kor. 5, 21. i. lidur hid þýngsta straff, sem løgmálid tiltekur, 5 Mós. b. 21, 23. V. 14. 1 Mós. b. 12, 3. 22, 18. k. Es. 32, 15. 44, 3. l. Pgb. 2, 17. 18. 23. V. 15. Heb. 9, 17. V. 16. 1 Mós. b. 12, 3. 1 Mós. b. 22, 18.

géfin og hans afkvæmi; ekki stendur þar af-
kvæmum, eins og til margra væri meint, held-
ur eins og til eins, „og þínu afkvæmi," sem
er Kristur. 17. Med þessu vil eg sagt hafa
ad løgmálid, sem út var géfid fjøgur hundrud
og þrjátíu' árum sídar, ekki hafi gétad gjørt
ógylda og afmád þá af Gudi ádur stadfestu
rádstøfun um Krist; 18. því ef arfleifdin fæst
med løgmálinu, þá fæst hún ekki vegna fyrir-
heitisins; en nú var Gud Abraham nádugur
vegna fyrirheitisins.

19. Til hvørs var þá løgmálid? þad var
géfid vegna afbrotanna, þángad til afkvæmid
kjæmi, uppá hvørt fyrirheitin hljódudu og kunn-
gjørt af Englunum fyrir hønd medalgaungu-
mannsins. 20. En fleiri enn einu a) (vidkém-
ur) medalgángarinn, en Gud er einn og hinn
sami. 21. Skyldi þá løgmálid vera gégn
Guds fyrirheitum? fjærri sé því! því ef því-
líkt løgmál hefdi géfid verid, sem farsæld gat
veitt, þá er þad víst, ad réttlætid hefdi fengist
af løgmálinu. 22. En Ritníngin sýnir ad all-
ir eru sekir, svo ad fyrirheitid veitist þeim fyr-
ir trúna á Jesúm Krist. 23. En ádur enn
trúin kom, stódum vér undir gjætslu løgmáls-
ins og vórum vid þad bundnir, þángad til sá
trúar lærdómur', sem var í vændum, opinber-
adist. 24. Þannig var løgmálid vor typtun-
armeistari þángad til Kristur kom, svo ad vér
af trúnni réttlættumst. 25. En nú, þá þessi
trúarlærdómur er kominn, støndum vér ekki
lengur undir typtunar-meistaranum, 26.
því ad þér erud allir ordnir Guds børn fyrir
trúna á Jesúm Krist; 27. því svo margir af
ydur, sem erud skírdir til ad trúa á Krist, þér
hafid íklædst Kristi. 28. Hjá honum gyldir
hid sama Gydíngur og Grikki, þræll og hinn
frjálsi, karl og kona; því þér erud allir eitt í
Jesú Kristi. 29. En ef þér erud Krists, þá
erud þér og Abrahams nidjar og erfíngar ept-
ir fyrirheitinu.

## 4. Kapítuli.

Þeir kristnu eru ekki þrælar undir løgmálinu, held-
ur børn. Postulinn rædur því frá ad hverfa apt-
ur til løgmálsins. Eptirlíkíng dregin af Agar og
Sara.

1. Hér med vil eg sagt hafa ad þad sé
enginn munur á þrælnum og erfíngjanum, á
medan erfínginn er barn, þó hann eigi allar
eigurnar, 2. því hann er undir tilsjónar og
ráds-mønnum, þar til sá af fødurnum tiltekni
tími er kominn. 3. Þannig vorum vér medan
vér vorum børn b), þrælbundnir vid heimsins
stafrof c); 4. en þá sá tilsetti tími var kom-
inn, sendi Gud sinn Son fæddann af kvinnu,
løgmálinu undirgéfinn, 5. svo ad hann keypti
þá fría, sem undir løgmálinu stódu og vér
fengjum fulltída barna-rétt. 6. En med því
þér erud ordnir fulltída synir, þá hefir Gud
sendt síns Sonar anda í ydar hjørtu, sem
hrópar: 7. Fadir! elskulegi Fadir! þú ert þess
vegna ekki framar þræll, heldur fulltída sonur;
en ef þú ert sonur, þá ertu líka erfíngi Guds

---

V. 17. 2 Mós. b. 12, 40. Post. gb. 7, 6. V. 19. Róm. 4, 15. 5, 26. Post. gb. 7, 53. Hebr. 2, 2. Jóh. 1, 17. V. 20. a. afsprengi (spermatos) Róm. 4, 9—12. Gal. 3, 16—18. 29. sbr. Matt. 3, 9. V. 21. v. 17. 18. Róm. 8, 2. 4. V. 22. Róm. 3, 9. 11, 32. V. 24. Matt. 5, 17. Post. gb. 13, 39. Róm. 10, 4. V. 26. Esa. 55, 5. Jóh. 1, 12. V. 27. Róm, 6, 3. 13, 14. V. 28. Róm. 10, 12. 3, 22. 29. 2, 11. Kól. 3, 11. Efes. 2, 14. 15. V. 29. Róm. 9, 7. 1 Mós. b. 21, 12. V. 3. b. nl. ádur enn vér kristnir urdum. c. þ. e. ófullkomnu þekkíngu. V. 4. 1 Mós. b. 49, 10. Mark. 1, 15. Efes. 1, 10. V. 7. samanber. Róm. 8, 15—17.

vegna Krists. 8. Fordum dýrkudud þér ad
vissu, á medan þér þekktud ekki Gud, þá sem
í raun og veru ekki eru Gudir; 9. en hvørnig
getid þér nú, eptir þad þér þekkid Gud, já,
erud af Gudi þekktir a), snúid aptur til þess
kraptlitla og fátæklega barna stafrofs b), und-
ir hvørt þér á ný viljid þrælka? 10. þér
haldid uppá sérlega daga, mánudi, vissa tíma
og ár. 11. Eg er hræddur um ad eg hafi unnid
hjá ydur til forgéfins.

12. Verid eins og eg, því eg var eins og
þér erud; um þetta bid eg ydur, brædur! med
engu hafid þér módgad mig. 13. Þér mun-
id, ad eg var líkamlega þjakadur c) þá eg
fyrr bodadi ydur nádar lærdóminn, 14. samt
forsmádud þér mig ekki í mínum líkamlegu bág-
indum, né burtsnørudud mér þar fyrir, heldur
medtókud mig eins og Engil Guds, edur Jesúm
Krist sjálfann d). 15 Hvørsu sælir þóktust þér
þá! Eg gét borid ydur þad, ad hefdud þér
gétad, þá hefdud þér rysid augun úr høfdum
ydar og gésid mér. 16. Er eg þá ordinn ó-
vinur ydar vegna þess eg kénni ydur sannleik-
ann e)? 17. hinir sýna vandlætíngu ydar vegna,
en ekki af gódu, heldur vilja útiloka ydur f),
svo ad þér vandlætid þeirra vegna. 18. Ad
vísu er þad loflegt, ætíd ad verda fyrir vand-
lætíngasamri velvild í því, sem gott er, og ekki
einúngis medan eg er hjá ydur g). 19. Børn
mín! sem eg á ný med harmkvælum geng med,
þar til Kristur er myndadur í ydur h); 20. eg
vildi eg væri nú hjá ydur, svo eg gæti
breytt røddinni vid ydur, því eg er í vand-
rædum med ydur.

21. Segid mér, þér, sem viljid vera undir
løgmálinu, hafid þér ekki heyrt løgmálid? 22.
þar stendur skrifad, ad Abraham hafi átt tvo
syni, annann vid ambáttinni, en hinn vid þeirri
frjálsu. 23. Sá, sem hann átti vid ambátt-
inni, var á holdlegann hátt gétinn, en hinn
eptir fyrirheiti. 24. Þetta hefir meira ad
þýda. Þessar tvær eru þeir tveir sáttmálar,
annar, sem kom frá Sínaí fjalli, gétur børn
til þrældóms; 25. þessi er Hagar, (því Sínaí
fjall í Arabíu kallast Hagar) og samsvarar
þeirri núverandi Jerúsalem, því hún er ásamt
sínum børnum i) í ánaud k). 26. En sú
himneska Jerúsalem er frjáls og hún er vor
módir; 27. því stendur skrifad: vertu glød ó-
byrja, sem ekkért barn hefir átt, hrópa og kalla
hátt þú, sem hefir jódsjúk ordid, því børn þeirr-
ar yfirgéfnu eru fleiri, enn hinnar, sem mann-
inn hefir. 28. Vér, brædur mínir! erum fyr-
irheitisins børn, eins og Isaak. 29. En eins
og fordum sá, sem á holdlegann hátt var gét-
inn, ofsókti þann, sem á andlegann hátt var
gétinn, eins gengur þad til enn. 30. En
hvad segir Ritníngin? rek burt ambáttina og
son hennar; því ekki skal ambáttar sonurinn
taka arf med syni þeirrar frjálsu. 31. Vér

---

V. 8. 1 Kor. 12, 2. V. 9. 1 Kor. 13, 12. a. þ. e. Gud kannast vid sem sína. b. Gal. 4, 3. V. 10. Róm. 14, 5. Kól. 2, 16. V. 12. Eg matti, ádur enn eg vard kristinn, eins og þér nú ofmjøg løgmál Gydínganna, nú gjøri eg þad ekki framar; líkist mér í því. V. 13. c. 1 Kor. 2, 3. 1 Tess. 2, 2. þad er óvíst til hvørs lissins ørdugleika Postulinn meinar hér. V. 14. d. Malak. 2, 7. Matt. 10, 40. V. 16 e. sbr. Amos. 5, 10. V. 17. Falskénnéndurnir. f. nl. frá því kristilega frelsi. V. 18. g. sjá v. 15 V. 19. h. Þar til þér erud ordnir fullkomnir í kristi-legri þekkíngu. sbr. Róm. 8, 29. 30. V. 21. Kap. 3, 10. 25. V. 22. 1 Mós. b. 16, 15. 21, 2. V. 23. Róm. 9, 7. 8. V. 24. sbr. Hebr. 8, 9. 10. V. 25. i. nl. Gydíngunum, k. ánaudug Mósis laga oki. V. 26. Krists ríki, Esa. 2, 2. Hebr. 12, 22. Opinb. b. 3, 12. V. 27. Es. 54, 1. V. 28. v. 23. Róm. 9, 8. V. 29, 1 Mós. b. 21, 9. V. 30. 1 Mós. b. 21, 10. 12. V. 31. Róm. 6, 18.

erum því, brædur! ekki nidjar ambáttarinnar
heldur hinnar frjálsu.

## 5. Kapítuli.

Páll kénnir: ad þeir, sem vilji halda løgmálinu, séu
eigi leingur kristnir; varar þó undireins vid mis-
brúkun hins kristilega frelsis.

1. Haldid støduglega vid þad frelsi a), sem
Kristur hefir ydur afrekad og látid ekki aptur
leggja á ydur ánaudar ok b). 2. Vitid, eg
Páll segi ydur þad, ad ef þér látid ydur um-
skéra, c) þá gagnar Kristur ydur ekki. 3. Enn
á ný vitna eg þad fyrir hvørjum þeim, sem
lætur sig umskéra, ad hann skuldbindur sig til
ad halda allt løgmálid d). 4. Hvørjir helst
af ydur, sem ætlid ad réttlætast fyrir løgmál-
id, þér erud ordnir vidskila vid Krist, erud
fallnir úr nádinni; 5. vér þar á mót vænt-
um í anda, ad ødlast af trúnni þá eptir-
væntu réttlætíngu, 6. því hjá Kristi e) gyld-
ir hvørki umskurn né yfirhúd, heldur trú f),
sem sýnir sinn krapt í elskunni. 7. Þér héldud vel
áfram, en hvørr hefir hindrad ydur, svo ad
þér trúid ekki sannleikanum? 8. slík trúgirni
er ekki frá þeim, sem ydur hefir kallad. 9.
Lítid súrdeig sýrir allt deigid. 10. Eg treysti
ydur med Drottins hjálp til þess, ad þér sé-
ud ekki ødruvísi þenkjandi, en sá, sem trublar
ydur g) mun fá sinn dóm, hvørr helst sem hann
er. 11. Ef eg, brædur mínir! væri enn þá
ad halda fram umskurninni, því er eg þá enn
ofsóktur? þá væri krossins hneixli burttekid,
12. þad væri betur ad þeir væru burtteknir,
sem gjøra ydur óróa.

13. Þér erud ad vísu, brædur! kalladir til
frelsis, en á því rídur ad frelsid ekki misbrúk-
ist til eptirlátsemi vid holdid h), heldur ad hvørr
ydar þjóni hvørr ødrum med kjærleika; 14.
því allt løgmálid i) innifelst í þessu eina bod-
ordi k): elska skaltu náúngann, sem sjálfann
þig. 15. En ef þér tønnlist innbyrdis og á-
sælist hvørr annann, sjáid þá vid því ad þér
tortýnid ekki hvørr ødrum. 16. En eg áminni
ydur, ad þér látid ydur af andanum leida l),
en fremjid ekki þad, sem holdid girnist; 17.
því holdid girnist gégn andanum og andinn
gégn holdinu m), þau eru hvørt gégn ødru,
þar af kémur þad, ad þér gjørid ekki þad, sem
þér viljid. 18. Ef þér leidist af andanum n),
þá erud þér ekki undir løgmálinu o). 19. All-
ir vita hvílík eru holdsins verk, ad þad eru:
frillulífi, saurlífi, stjórnleysi girndanna, 20.
skurdgoda dýrkan, kukl, hatur, deilur, metníng-
ur, stórlyndi, þráttanir, tvídrægni, flokkadrátt-
ur, 21. øfund, mord, ofdrykkja, óhófs veitslur
og annad þessu líkt p), um hvad allt eg segi
ydur enn þá hid sama, sem eg hefi ádur sagt,
ad þeir, sem slíkt gjøra, ødlist ekki Guds ríki.
22. En ávøxtur andans er kjærleiki, gladsinni,
fridsemi, lánglundargéd, ljúflyndi, gódvilji, hrein-
skilni, hógværd, bindindi, 23. gégn þessu er
ekki løgmálid q). 24. Þeir, sem Krists eru,

---

V. 1. a. Jóh. 8, 32. Post. gb. 15, 10. b. sbr. Esaj. 9, 1. ff. V. 2. c. Eptir ad þér haf-id tekid kristni, Post. gb. 15, 1. V. 3. d. nl. Mósis løgmál. V. 4. Kap. 2, 21. Róm. 5, 5. eptirf. 8, 13—17. V. 6. e. 1 Kor. 7, 19. Gal. 6, 15. f. Jóh. 15, 14. 1 Tess 1, 3. V. 9. 1 Kor. 5, 6. V. 10. g. Kap. 1, 7. V. 13. h 1 Kor. 8, 9. 1 Pét. 2, 16. V. 14. i. Krists løgmál. k. Matt. 22, 39. 3 Mós. b. 19, 18. V. 16. l. sbr. Róm. 6, 12. 8, 1. 5. V. 17. m. Róm. 7, 15. 23. V. 18. n. Róm. 8, 2. 14. o. 6, 14. 15. leidist af andanum nl. þeirri sonarlegu elsku, hlýdni og trausti til Guds, og mannelsku, sem Krists lærdóms andi innprentar. o. V. 19. 1 Kor. 3, 3. 6, 9. Efes. 5, 3. 5. V. 21. p. Lúk. 21, 34. 1 Kor. 6, 10. Efes. 5, 5. V. 22. Efes. 5, 9. Kol 3, 12. 13. V. 23. q. 1 Tímót. 1, 6. V. 24. Róm. 6, 9. 11. Gal. 2, 20.

þeir hafa krossfest hold sitt med þess girndum
og tilhneigíngum. 25. Ef vér lifum í andan=
um, þá framgaungum í andanum. 26. Sæk=
jumst ekki eptir hégómlegri vegsemd, áreitandi
hvørr annann og øfundandi hvørr annann.

## 6. Kapituli.

*Páll áminnir til ýmislegra dygda. Varar vid fals=kénnendum.*

1. Gódir brædur! verdi nokkurr fundinn ad
einhvørri synd, þá leidréttid þér, sem andlegir
erud, hann med hógværd; en sérhvørr gjæti ad
sjálfum sér, ad hann leidist ekki til syndar.
2. Sérhvørr umberi annars bresti; þá hafid þér
uppfyllt Krists løgmál. 3. Þykist nokkurr mik=
ill, en er þad þó ekki, hann dregur sjálfann sig
á tálar. 4. En sérhvørr ransaki sín verk og
hrósi sér þá einúngis med sjálfum sér, en ekki
fyrir ødrum; 5. því hvørr einn mun hafa
sína byrdi ad bera.

6. Sá, sem uppfrædist, veiti þeim allskon=
ar gjædi, er hann uppfrædir. 7. Villist ekki,
Gud lætur ekki ad sér hæda; því þad, sem
hvørr einn sáir, þad mun hann uppskéra.
8. Sá, sem í sitt hold sáir a), mun þar af gløtun
uppskéra; en sá, sem í andann nidursáir b),
mun af andanum uppskéra eilíft líf. 9. Látum
oss ekki þreytast ad gjøra gott, því á sínum
tíma munum vér uppskéra, ef vér ekki letjumst.
10. Þessvegna, á medan tími er til, þá gjør=
um øllum gott, en þó þeim helst, sem eru
sømu trúar, sem vér.

11. Sjáid hvad lángt bréf eg hefi skrifad
ydur, med minni egin hendi. 12. Þeir, sem
eru ad þreyngja ydur til ad umskérast, eru þeir
sem sækjast eptir yfirburdum í því útvortis,
einúngis til þess þeir komist hjá ofsóknum vegna
krossins Krists; 13. því ekki vardveita sjálfir
þeir, sem umskornir eru, løgmálid, heldur vil=
ja þeir ad þér umskérist, svo þeir géti stært sig
af ydar holdi. 14. En lángt sé frá mér ad
hrósa mér af ødru, enn krossi Drottins vors
Jesú Krists, vegna hvørs heimurinn er mér
krossfestur og eg heiminum. 15. Hjá Jesú
Kristi gyldir hvørki umskurn né yfirhúd, held=
ur ad madurinn sé ný sképna a). 16. Yfir svo
mørgum, sem þessu fylgja, hvíli fridur og
miskun og yfir Ísraeli Guds! 17. Enginn
mædi mig hédan í frá, því eg ber merki Jesú
Krists á mínum líkama. 18. Nádin Drott=
ins Jesú Krists sé med ydar anda, bræd=
ur! Amen!

---

V. 25. Róm. 8, 5. V. 26. sbr. Fil. 2, 3. V. 1. Matt. 18, 15. Róm. 14, 1. 15, 1. 1 Kor. 10, 12. V. 2. 1 Tess. 5, 14. Róm. 15, 1. 1 Jóh. 4, 21. V. 3. Jak. 1, 26. V. 4. 2 Kor. 13, 5. ef hann finnur þau hrósverd. V. 6. 1 Kor. 9, 11. V. 7. Lúk. 16, 25. Róm. 2, 6. V. 8. Ordskv. 6. 22, 8. 2 Tess. 1, 9. Sálm. 126, 5. a. þ. e. lifir eptir sínum holdlegu girndum; b. breytir eptir því, sem af Krists lærdómi upplýst samvitska kénnir honum. V. 9. Sír. 51, 38. 2 Tess. 3, 13. V. 10. sbr. 1 Tím. 5, 8. Róm. 2, 10. 8, 6. V. 12. sbr. Filipp. 3, 18. V. 13. ydar umskurn. V. 15. a. betradur, 2 Kor. 5, 17.

# S. Páls Pistill til Efesus-manna.

## 1. Kapítuli.

Páll þakkar Gudi fyrir Krists velgjorníngа. Bidur ad Gud vilji enn betur upplýsa þá um mikilleik þessara velgjorníngа.

1. Páll, ad Guds vild Postuli Jesú Krists, óskar nádar og fridar af Gudi vorum Födur og Drottni Jesú Kristi, 2. øllum heiløgum, sem eru í Efesus og trúa á Jesúm Krist.

3. Lofadur sé Gud og Fadir vors Drottins Jesú Krists, er oss hefir fyrir Krist blessad, med allskonar andlegri og himneskri blessun; 4. líka sem hann og hefir útvalid oss med honum ádur enn verøldin var grundvøllud, til þess ad vér vera skyldum heilagir og flekklausir fyrir hans augliti, 5. og af elsku hefir fyrirhugad oss, eptir velþóknun síns vilja, barnarétt hjá sér fyrir Jesúm Krist, 6. til lofs sínni dýrdlegu nád, er hann veitti oss í sínum elskulega, 7. fyrir hvørn, þad er fyrir hans blód, vér høfum lausnina ødlast: fyrirgéfníngu syndanna af ríkdómi Guds gjædsku, 8. hvørja hann hefir ríkuglega látid oss í tje, med því ad veita oss vísdóm og skilníng, 9. í því hann opinberadi oss leyndarrád síns velþóknanlega vilja, er hann hafdi ádur ályktad med sjálfum sér, 10. nefnilega: þá sína rádstøfun, ad í uppfyllíngu tímans allt skyldi sameinast í Kristi, bædi þad, sem er á himni og á jørdu; 11. í þeim, í hvørjum einnig vér, sem ádur væntum hans, høfum hlutteknígu ødlast; vér, sem eptir fyrirhugun Guds, er framkvæmir allt eptir rádi síns vilja, ádur ákvardadir vorum, 12. til þess ad vér, sem fyrifram vonudum uppá Krist, séum hans dýrd til lofs. 13. Í hvørjum og þér, sem heyrt hafid sannleiksins lærdóm, nádar lærdóm ydar sáluhjálpar, í hvørjum og þér, sem trúid, erud innsigladir med þeim fyrirheitna heilaga Anda, 14. sem er pantur vorrar arfleifdar, þángad til lausnin kémur fyrir þá, sem hans eru, til lofs hans dýrdar.

15. Þess vegna, frá því eg frétti um trú ydar á Drottinn Jesúm og elsku ydar til allra heilagra, 16. hefi eg ekki aflátid ad þakka Gudi fyrir ydur og minnast ydar í mínum bænum, 17. ad Gud Drottins vors Jesú Krists, dýrdarinnar Fadir, vildi géfa ydur vísdóms og opinberunar anda í sínni þekkíngu, 18. og upplýsa augu ydar hugskots, svo þér þekkt gétid, hvílík ad sé von ydar køllunar og hvad yfrid dýrdleg sú arfleifd sé, sem hann hefir þeim heiløgu fyrirhugad, 19. og þekkt þann yfirgnæfanlega mikilleika hans máttar, sem hann hefir sýnt á oss, sem trúum fyrir krapt þess hins sama almættis, 20. sem hann sýndi á Kristi,

V. 3. 2 Kor. 1, 3. 1 Pét. 1, 3. V. 4. Róm. 8, 29. 30. 2 Tess. 2, 13. Lúk. 1, 75. Efes. 2, 10. Fyrir hans augliti, þ. e. hræsnislaust. V. 5. Róm. 8. 15, 29. Gal. 4, 5. V. 6. Matt. 3, 17. 17, 5. V. 7. Post. gb. 20, 28. Kól. 1, 14. 1 Pét. 1, 18. 19. V. 9. Kól. 1, 26. V. 10. 1 Mós. 49, 10. Dan. 9, 24. Gal. 4, 4. Kól. 1, 20. 1 Kor. 15, 24. 28. Fil. 2, 9—11. V. 11. Kól. 1, 12. Róm. 8, 29. 30. V. 13. og 14. Sannfæríngin er ordin óbifanleg hjá ydur (þér erud innsigladir) um Krists lærdóms sannleika og ydar sáluhjálp og þad gudlega og heilaga hugarfar, sem þessi sannfæríng veitir, er ydur pantur uppá, ad þér verdid eilífrar sælu (arfleifdar) adnjótandi. Róm. 8, 15—17. 23. Tit. 2, 14. 1 Pét. 2, 9. V. 20. Post. gb. 2, 24. Sálm. 110, 1. sbr. 1 Kor. 15, 25.

þá hann uppvakti hann frá daudum og setti
til hægri handar sjálfum sér á himnum, 21.
yfir allann høfdíngjadóm og yfirrád, makt og
herraveldi og allt þad, sem nafn hefir, ekki ein=
úngis á þessari øld, heldur og þeirri til=
komandi. 22. Allt hefir hann lagt honum
undir fætur og sett hann til høfdíngja yfir øllu
í hans søfnudi, 23. sem er hans líkami, fyllíng
þess sem uppfyllir allt í øllum.

## 2. Kapítuli.

Postulinn minnir þá kristnu, svo vel af Gydíngum
sem heidíngjum, á þad, ad Kristur hafi kallad þá
frá andlegum dauda til andlegs lífs, og sameinad
í einn søfnud. Sjálfum sér hafi þeir þad eigi
ad þakka.

1. Og svo hefir hann lífgad ydur, sem
daudir vorud í yfirtrodslum og syndum, 2.
er þér láud í fordum ad heimsins sid og
ad vild þess høfdíngja, sem í loptinu drottn=
ar, þess anda, sem nú sýnir sig verkandi í
vantrúarinnar sonum; 3. á medal þessara
vorum vér og allir fordum, á medan vér
fylgdum vorum holdlegu girndum og hlýddum
holdsins og tilhneigínganna vilja og vorum
þessvegna af náttúrunni børn reidinnar eins
og hinir. 4. En Gud, sem ríkur er af miskun,
kalladi oss, vegna sinnar miklu elsku, med
hvørri hann elskadi oss, til lífsins, med
Kristi, 5. þá vér daudir vorum í misgjørdum
vorum — af nád erud þér hólpnir ordnir —
6. og hefir uppvakid oss og sett oss á himni
med Jesú Kristi, 7. svo ad á eptirkomandi
øldum skyldi sá mikli mikilleiki hans nádar
lýsa sér á velgjørníngi þeim, er hann veitti
oss med Jesú Kristi; 8. því af nád erud
þér hólpnir ordnir med trúnni, og þad er
ekki ydur ad þakka, heldur er þad Guds gjøf;
9. ekki af verkunum, svo ad enginn hefir orsøk
ad stæra sig. 10. Vér erum hans verk skap=
adir í Jesú Kristi til gódra verka, sem Gud
hefir fyrifram tilætlad ad vér stunda skyldum.

11. Munid því til þess, ad þér vorud ford=
um holdlega sinnadir heidíngjar, kalladir óum=
skornir af þeim, sem kalla sig umskorna af
þeirri umskurn, sem á holdinu er med høndum
gjørd; 12. ad þér þá vorud án Krists útilok=
adir frá rétti Gydínganna og frá því ad hafa
hlut í fyriheitisins sáttmálum, vonarlausir og
án Guds í heiminum. 13. En nú erud þér
í Kristi hluttakandi og þér, sem ádur vorud fjær=
lægir, erud nú nálægir ordnir vegna Krists blóds;
14. því hann er vor fridur, sem hefir gjørt
eitt úr bádum og nidurbrotid skilrúms = vegg=
inn, fjandskapinn, 15. og í sínu holdi afmád
bodordanna løgmál, ásamt med þess setníng=
um, svo ad hann skapadi af tveimur einn ný=
ann mann í sjálfum sér, 16. sembi frid og
sætti hvørjatveggja vid Gud í einum líkama
fyrir krossinn og deyddi fjandskapinn þar med,

V. 21. Filipp. 2, 9. Kól. 2, 10. þ. e. í þessu lífi. V, 22. Sálm. 8, 7. Matt. 28, 18. Kól. 1, 18. V. 23. 1 Kor. 12, 12. 27. Efes. 4, 16. V. 1. Kól. 2, 13. V. 2. 2 Kor. 6, 11. Tít. 3, 3. Kól. 3, 13. Jóh. 12, 31. V. 3. þ. e. ádur enn vér upplýstumst og betrudumst af Krists trú, Jóh. 3, 6. sbr. Kól. 3, 6. 7. V. 4. Róm. 10, 12. V. 5. sbr. Róm. 6, 4. fl. 8, 11. V. 6. þ. e. sá kristilega sinnadi gjætir sinnar jardnesku køllunar, en hans hugur er á himni. Sbr. Matt. 10, 16. V. 7. Kap. 1, 7. 3, 8. V. 8. sbr. Matt. 16, 17. Róm. 6, 23. V. 9. sbr. Róm. 3, 20. 27. 4, 2. fl. 1 Kor. 4, 7. V. 10. 2 Kor. 5, 17. Tít. 2, 14. V. 12. Róm. 1, 21 (sbr. 9, 4.) Gal. 4, 8. 2 Mós. 19, 6. V. 13. Fjærlægir, þ. e. þér, vegna þess þér vorud heidnir, máttud ekki ádur med Guds fólki koma til Guds húss. V. 14. Þ. e. honum er ad þakka, ad vér getum þeinkt Gud oss nádugann, Jóh. 10, 16. Gal. 3, 28. V. 15. Kól. 2, 14. nl. Gydíngum og heidíngjum. V. 16. sbr. Kól. 1, 20.

17. kom og bodadi ydur frid, sem vorud fjær
og nær, 18. því honum er þad ad þakka, ad
vér hvørutveggju høfum med einum anda ad-
gáng til fødursins. 19. Þér erud þess vegna
ekki framar géstir og framandi, heldur med-
borgarar enna heiløgu og heimamenn Guds,
20. bygdir yfir þann grundvøll, sem Postul-
arnir og spámennirnir hafa lagt, hvørs horn-
steinn Jesús Kristur er, 21. á hvørjum øll sú
samtengda bygging vex til heilags musteris í
Drottni; 22. ofaná hvørn þér erud einnig
bygdir til bústadar Guds í andanum.

## 3. Kapítuli.

*Páll segir: ad hann sé settur Postuli til ad kunngjøra heidnum þjódum Krists lærdóm. Bidur, ad þeir megi styrkjast í sambandinu vid Krist.*

1. Þessa vegna er eg, Páll, bandíngi Jesú
Krists vegna ydar heidíngjanna, 2. þér munud
hvørt sem er heyrt hafa Guds nádar rádstøfun,
sem mér er falin á hendur ydur til heilla, 3.
því ad med opinberun kunngjørdi Gud mér sitt
leyndarrád, hvørs eg ádur stuttlega hefi gétid,
4. uppá þad, ad þá þér þad lesid, gétid þekkt
skilníng minn á Krists leyndardómi, 5. er á
hinum fyrri øldum var mannanna sonum, ekki
kunngjørdur, eins og hann nú er af andanum
opinberadur hans heiløgu Postulum og Spá-
mønnum, 6. nefnilega: ad heidíngjarnir séu
samarfar, tilheyri sama líkama og fái hlut í
fyrirheiti Guds um Krist med nádar lærdóm-
inum, 7. hvørs þjón eg er ordinn af mér ó-
verdskuldad veittri Guds nád, fyrir hans almætt-
is krapt; 8. mér, hinum lítilmótlegasta allra
heilagra, er nefnilega: veitt sú nád, ad kunn-
gjøra á medal heidinna þjóda þann óransakan-
lega ríkdóm a) Krists, 9. og upplýsa alla um þad,
hvørnig þessu leyndarrádi sé háttad, sem ádur
var geimt hjá einum Gudi, er skapadi allt, 10.
svo ad nú skyldi af søfnudinum b) kunnug verda
sú margbreytta speki Guds, høfdíngjum og
herradómum á himnum, 11. eptir eilífri fyrirhug-
un, sem hann fullkomnadi fyrir Jesúm Krist
vorn Drottinn; 12. fyrir hvørn vér høfum
djørfúng og adgáng med trausti fyrir trúna á
hann.

13. Þar fyrir bid eg, ad þér látid ekki hug-
fallast af þeim þreyngíngum, er eg líd fyrir
ydar skuld; því þad er ydar heidur. 14. Eg
beygi þess vegna mín kné fyrir Fødur Drott-
ins vors Jesú Krists, 15. af hvørjum allt fad-
erni nefnist á himni og jørdu, 16. ad hann
af ríkdómi sinnar gjædsku vilji veita ydur ad
styrkjast svo krøptuglega í þeim innra manni
fyrir hans anda, 17. ad Kristur géti í ydar
hjørtum búid fyrir trúna, og ad þér séud rót-
festir og grundvalladir í kjærleikanum, 18. og
ásamt øllum heiløgum gétid skilid, hvílík ad sé
breidd, lengd, dýpt og hæd elsku Krists, 19.
og þekkt hvørsu hún yfirgengur allan skilníng,

---

V. 17. Esa. 57, 19. V. 18. Jóh. 14, 6. Róm. 5, 2. Hebr. 10, 19. V. 19. Filipp. 3, 20. Hebr. 12, 22. 23. V. 20. sbr. Matt. 16, 18. 1 Kor. 3, 9. 10. V. 21. Kap. 4, 16. 1 Kor. 3, 16. V. 22. 1 Pét. 2, 5. V. 1. Kap. 4, 1. Post. g. b. 21, 33. sl. 28, 31. Efes. 3, 13. Kól. 1. 24. V. 2. Post. g. b. 9, 15. V. 3. Post. g. b. 22, 21. Róm. 16, 25. 26. Gal. 1, 16. V. 4. Kól. 4, 3. V. 5. Kól. 1, 26. Post. g. b. 10, 28. V. 6. Gal. 3, 28. 29. Efes. 2, 15. 16. V. 8. 1 Kor. 15, 9. Post. g. b. 9, 15. Gal. 2, 8. Róm. 11, 33. a. nl. sannleika og nádar ríkdóm. V. 9. Kól. 1, 26. 1 Pét. 1, 20. V. 10. sbr. 1 Pét. 1, 12. b. nl. af forløgum safnadarins. V. 12. Hebr. 4, 16. 10, 19. Jóh. 10, 9. Róm. 5, 2. V. 13. Kól. 1, 24. V. 15. Kap. 1, 10. V. 16. 2 Kor. 4, 16. V. 18. Kól. 1, 26. gétid skilid mikilleik, krapt og edli Krists elsku.

svo þér fullkomnist í allri fullkomnun Guds.
20. En þeim, sem øllu framar megnar ad
gjøra fram yfir þad, sem vér bidjum edur
skynjum, eptir þeim krapti, sem í oss verkar,
21. honum sé dýrd í søfnudinum fyrir Jesúm
Krist ætíd um aldir alda, Amen!

## 4. Kapítuli.

Postulinn áminnir ad kristnir breyti samkvæmt þeirra køllun; og þar fyrir fordist þá lesti, sem þeir í heidni drýgdu.

1. Eg, sem er bandíngi vegna Drottins,
áminni ydur þar fyrir, ad þér hegdid ydur
samkvæmt þeirri køllun, sem þér erud kalladir,
2. séud litillátir, hógværir, þolinmódir, umlíd-
id hvørr annan í kjærleika, 3. og kappkostid ad
vardveita eindngu andans med bandi fridarins.
4. (Þér erud) einn líkami og einn andi, eins
og þér erud einnig kalladir einni von ydar
køllunar; 5. einn (er) Drottinn, ein trú, ein
skírn, 6. einn Gud og Fadir allra, sem er
yfir øllum, hjá øllum og í oss øllum. 7.
En sérhvørjum af oss er nádargjøf veitt, eptir
því, sem Kristur hefir hvørjum af nád sinni
úthlutad. 8. Þar fyrir segir Ritníngin: upp-
farinn í hædina hefir hann þá herteknu her-
leidt, og géfid mønnunum gjafir. 9. En þetta,
„hann er uppfarinn", hvad er þad annad, en
ad hann hafi stígid nidur til jardarinnar? 10.
Sá, sem nidursteig, er hinn sami, sem upp-
sté yfir alla himna, ad hann uppfyllti allt. 11.
Þessi hinn sami hefir gjørt suma ad Postul-
um, suma ad Spámønnum, suma ad Gud-
spjallamønnum, suma ad hirdurum og lærifedr-
um, 12. svo hinir heiløgu yrdu hæfilegir til
framkvæmdarsamrar þjónustu, Krists líkama til
uppbyggíngar, 13. þar til vér allir erum komn-
ir til eindngar í trúnni og þekkíngar á Guds
Syni, høfum nád fullordins aldri og fullkomn-
um þroska Krists safnada; 14. svo ad vér sé-
um ekki framar børn, er hrekjumst og feykjumst
af hvørjum lærdóms vindblæ, fyrir brøgdum
manna, slægd þeirra og kjænskufullu vélum,
15. heldur høldum fast vid sannleikann í kjær-
leika, og verdum med øllu samgrónir Kristi,
sem er høfudid, 16. af hvørjum allur líkam-
inn sem er samtengdur og samsettur med alls-
konar hjálpar-taugum, þroskast, eptir þeim krapti,
sem sérhvørjum lim er veittur, til uppbyggíng-
ar í kjærleikanum.

17. Þess vegna býd eg og áminni í Drottni,
ad þér ekki framar breytid sem hinar þjódirn-
ar, er fylgja hégómleik síns hugskots, 18. eru
blindadar á skilníngínum, og vegna þeirra van-
þekkíngar og hjartans hardúdar eru fráhverfar
því líferni, sem Gudi líkar, 19. hafa blygdun-
arlaust søkkt sér nidur í saurlifnad, og drýgja
allskonar ótérleika fyrir ábata sakir. 20. En
þannig er ekki ydur Kristur kéndur; 21. því
þér hafid numid hann og erud í honum upp-
fræddir, eins og sannleikurinn er í Jesú (inni-
falinn): 22. ad þér, hvad hinni fyrri hegdun
vidvíkur, skulid afleggja hinn gamla manninn,
sem spillist af tælandi girndum, 23. en ad þér
þar á móti skulud endurnýast í anda ydvars
hugskots, 24. og íklædast þeim nýa manni,

V. 20. Róm. 16, 25. Efes. 1, 19. V. 1. Post. g. b. 21, 13. V. 4. Róm. 12, 5. 1. Kor. 12, 27. V. 5. 1 Kor. 8, 4. 6, 12, 5. V. 6. Mal. 2, 10. Róm. 11, 36. V. 7. Róm. 12, 3. V. 8. Sálm. 68, 19. V, 10. þ. e. kristilegri kirkju til eflingar. V. 11. 1 Kor. 12, 28. Post. gb. 11, 24. 21, 8. Róm 12, 7. líklega forstødumenn og stødugir kénnarar í einstøkum søfnudi, Tít. 1. V. 12. 1 Kor. 12, 27. Kól. 1, 24. V. 13. Kap. 3, 18. 19. V. 14. 1 Kor. 14, 20. Hebr. 13, 9. V. 15. Kól. 1, 18. fl. V. 16. 1 Kor. 12, 12. 27. 1 Kor. 16, 14. V. 17. 1 Pét. 4, 3. V. 19. Róm. 1, 27. 1 Tess. 4, 5. V. 24. 2 Kor. 5, 17. Kól. 3, 10.

sem skapadur er eptir Gudi í réttlæti og heilagleika sannleikans. 25. Afleggid því lygar og talid sannleika, hvørr vid sinn náúnga, því vér erum hvørr annars limur, 26. reidist, en syndgid ekki; sólin gángi ekki undir a) yfir ydar reidi; 27. og géfid ekki djøflinum rúm. 28. Þjófurinn steli ekki framar, heldur vinni og gjøri eitthvad nytsamt med høndunum, svo hann hafi þad, sem hann géti midlad hinum þurfanda. 29. Ekkért ósæmilegt ord útfari af ydar munni, heldur þad, sem gott er til þarflegrar uppbyggíngar, og kémur sér vel ad heyra. 30. Hryggid ekki Guds heilagann Anda, í hvørjum þér erud innsigladir til endurlausnar dagsins. 31. Allur beiskleiki, stórlyndi, reidi, hávadi og íllmæli séu fjarlæg ydur, sem og øll vondska; 32. en verid gódir hvørr vid annan, medaumkunarsamir, fúsir ad fyrirgéfa hvørr ødrum, eins og Gud hefir fyrirgéfid ydur vegna Krists.

## 5. Kapítuli.

Páll býdur: ad taka Gud og Krist til eptirdæmis í elskunni. Ad afleggja heidínglega lesti. Hjón gjæti þeirra skyldu.

1. Líkist þá Gudi, sem elskuleg børn, 2. og framgángid í elskunni, eins og Kristur elskadi oss, og gaf sig sjálfan út fyrir oss, Gudi til þægilegs offurs og fórnfæríngar.

3. Eptir því sem heiløgum hæfir, á hvørki frillulífi, nokkurskonar óhreinleiki, edur ágirnd, svo mikid sem nefnast á medal ydar, 4. né blygdunarleysi, né fíflslegt hjal, edur gárúnga háttur, því slíkt er ósæmilegt, heldur miklu framar þakkargjørd; 5. því þad skulud þér vita fyrir víst, ad enginn frillulífis madur, edur óhreinn, edur ágjarn, sem er skurdgodadýrkari, hefir arftøku í ríki Krists og Guds. 6. Látid engann leida ydur afvega med hégómlegum ordum! því fyrir þessa (lesti) kémur reidi Guds yfir syni vantrúarinnar. 7. Takid því ekki hlutdeild med þeim. 8. Adur vorud þér myrkur, nú erud þér ljós í Drottni; gángid því sem ljóssins børn, 9. því ávøxtur ljóssins er gódvilji, réttlæti og sannleiki. 10. Hugsid eptir því, hvad Drottni er þókknanlegt, 11. en takid ekki þátt í myrkursins vondu verkum, heldur miklu framar straffid þau; 12. því þad þeir drýgja í leyndum, er skømm um ad tala; 13. en allt þetta, nær þad verdur straffad af ljósinu, verdur augljóst; því sérhvad þad, sem augljóst verdur, er ljós. 14. Þar fyrir stendur skrifad: vakna þú, sem sefur og rís upp frá daudum, þá mun Kristur lýsa þér. 15. Sjáid því til, ad þér gángid forsjállega, ekki sem fávísir, heldur sem vísir; 16. notid tækifærid, því nú er hættuleg tíd. 17. Verid því ekki fávísir, heldur skynjid hvør ad er Drottins vilji. 18. Og drekkid ydur ekki drukkna af víni, því þar af flýtur óheill, heldur fyllist andagipt, 19. og sýngid hvør fyrir ødrum sálma, lofkvædi og andlega saungva; sýngid og leikid Drottni lof í ydrum hjørtum. 20. Þakkid jafnan Gudi og Fødur fyrir alla hluti í nafni Drottins vors Jesú Krists, 21. og verid hvørr ødrum undirgéfnir í ótta Krists.

V. 26. a. þ. e. látid ekki reidina vara til sólarlags, (verid á hvørri stundu fúsir til sátta), sbr. Jak. 1, 19. V. 27. 1 Pét. 5, 8–9. V. 28. 1 Tess. 4. 11. V. 30. 2 Kor 1, 22. Efes. 1, 14. V. 32. Matt. 6, 14. Kól. 3, 13. V. 5. 1 Kor. 6, 10. Gal. 5, 21. Kól. 3, 5. V. 8. Jóh. 12, 35. 36. V. 9. Gal, 5, 22. V. 10. Róm. 12, 2. V. 11. 1 Kor. 5, 11. 2 Kor. 6, 14. Matt. 18, 17. V. 13. Jóh. 3, 20. 21. V. 14. 1 Kor. 15. 34. 16, 13. Es. 9, 2. V. 15. Ordskv. b. 14, 8. Róm. 16, 19. V. 16. Kól. 4, 5. Efes. 6, 13. V. 18. Gal. 5, 21. V. 19. Kól. 3, 16. V. 20. v. 4. 1 Tess. 5, 18.

22. Konurnar séu sínum mønnum undirgéfn=
ar, eins og Drottni; 23. því madurinn er høf=
ud konunnar, eins og Kristur er høfud safn=
adarins; hann er og frelsari síns líkama. 24.
En eins og søfnudurinn er undirgéfinn Kristi,
þannig séu og konurnar sínum mønnum í øllu.
25. Þér menn! elskid ydar egin konur, eins
og Kristur elskadi søfnudinn og gaf sig sjálfan
út fyrir hann, 26. svo ad hann helgadi hann
og hreinsadi hann í vatns lauginni, med ord=
inu; 27. uppá þad hann útvegadi sjálfum sér
dýrdlegan søfnud, á hvørjum enginn blettur
eda hrukka væri, edur nokkud þvílíkt, heldur
væri heilagur og lýtalaus. 28. Þannig
ega mennirnir ad elska sínar egin konur
sem sína egin líkami. Sá, sem elskar sína
egin konu, elskar sjálfann sig. 29. Eing=
inn hefir nokkru sinni sinn eginn líkama hat=
ad, heldur alid ønn fyrir honum og hjúkr=
ad, eins og Kristur gjørir søfnudinum; 30.
því vér erum limir hans líkama, af hans holdi
og af hans beinum. 31. Þess vegna skal mad=
urinn yfirgéfa fødur sinn og módur, og teng=
jast svo vid konu sína, ad þau tvø verdi eitt
hold. 32. Þetta er (í þessu er fólginn) mik=
ill leyndardómur, en eg heimfæri hann uppá
Krist og søfnudinn. 33. En allir skulud þér,
hvørr um sig, elska ydar egin konur, eins og
sjálfa ydur, en konan beri lotníngu fyrir manni
sínum.

## 6. Kapítuli.

Skyldur barna og foreldra, þjóna og drottna. Upp=
hvatníng til ad hertýgjast í gégn kristinndómsins
mótstodumonnum; og til ad bidja fyrir samkristn=
um og Páli sjálfum. Páll sendir Tykíkus til ad
láta Efesus=menn vita, hvørnig honum lídur;
óskar þeim Guds nádar.

1. Þér børn! verid foreldrum ydrum
hlýdin, Drottins vegna, því ad þad er
rétt. 2. Heidra fødur þinn og módur, þad
er hid fyrsta bodord med fyrirheiti, 3. ad þér
vegni vel og þú verdir lánglífur í landinu. 4.
En þér fedur! reitid ekki børn ydar til reidi,
heldur uppalid þau med aga og umvøndun ept=
ir Drottins bodum. 5. Þér þjónar! verid
undirgéfnir ydar jardnesku drottnum med lotn=
íngu og hrædslu af einlægu gédi, svo sem
Kristi; 6. ekki med augna þjónustu, svo sem
þeir, er mønnum vilja þókknast, heldur svo sem
þjónar Krists, er gjøra Guds vilja af hjarta,
7. þjóna med gódu gédi, eins og þeir gjøri
þad fyrir Drottinn, en ekki fyrir menn, 8.
vitandi, ad hvad hvørr einn gjørir gott, þad
mun verda honum endurgoldid af Drottni, hvørt
heldur hann er þræll edur frjáls. 9. En þér
drottnar! breytid eins vid þá; látid af hótun=
um, svo sem þeir, er vita, ad þér egid og svo
ydar Drottinn á himni, og ad hann gjørir sér
engann manna=mun.

10. Enn framar, brædur mínir! styrkist í
Drottni og krapti hans máttar. 11. Iklædist
Guds alvepni, svo þér stadist gétid djøfulsins
vélabrøgd; 12. því vér egum ekki í strídi vid
hold og blód, heldur vid høfdíngja og maktar=
vøld, vid heims drottna þessa myrkurs, vid

---

V. 22. 1 Kor. 11, 3. 14, 34. V. 23. Kap. 1, 22. 23. 4, 12. 15. Post. g. b. 5, 31. 1 Jóh. 4, 14. V. 24. Kól. 3, 18. V. 25. Kól. 3, 19. 1 Pét. 3, 7. 5, 2. Gal. 1, 4. V. 26. Jóh. 17, 17. 1 Jóh. 1, 7. Tít. 3, 5. V. 27. Kap. 1, 4. Kól. 1, 22. V. 29. Kap. 4, 16. V. 30. 1 Kor. 6, 15. 12, 27. V. 31. 1 Mós. b. 2, 24. Matt. 19, 5. V. 33. v. 28. 1 Mós. b. 3, 16. V. 1. Kól. 3, 20. V. 2. 2 Mós. b. 20, 12. Matt. 15, 4. V. 3. Ordskv. b. 3, 2. V. 4. Kól. 3, 21. V. 5. Kól. 3, 22. 1 Pét. 2, 18. V. 7. Kól. 3, 23. V. 8. Róm. 2, 6. 1 Kor. 3, 8. V. 9. Kól. 4, 1. 5 Mós. b. 10, 17. Job. 34, 19. 1 Pét. 1, 17. V. 12. 2 Kor. 10, 4. 5.

vondskunnar anda í loptinu. 13. Takid því Guds alvepni, svo þér getid veitt mótstødu, á enum vonda degi, og getid, ad øllu yfirunnu, stadist. 14. Standid reidubúnir, og hafid ydar lendar umgirdtar med sannleika. Verid íklæddir brynju réttlætisins, 15. og útbúid ydar fætur, ad þeir séu reidubúnir ad flytja fagnadar bodskap fridarins. 16. En umfram allt, grípid skjøld trúarinnar, med hvørjum þér munud útsløkkt fá øll eldleg skeyti þess vonda; 17. og takid hjálm hjálprædisins og sverd andans, sem er Guds ord. 18. Bidjid á sérhvørri tíd í anda med allskonar bænum og beidni, og verid árvakrir og sífeldlega stødugir í fyrirbeidslu fyrir øllum heiløgum, 19. og svo fyrir mér, ad þá eg opna minn munn, skorti mig ekki ord til þess ad kunngjøra djarflega nádar lærdómsins leyndardóm, 20. hvørs sendibodi eg er í fjøtrum, og ad eg megi kénna lærdóminn med djørfúng, eins og vera ber.

21. En uppá þad, ad þér einnig fáid ad vita, hvørnig mér lídur og hvad eg gjøri, þá mun Tykikus, minn elskulegur bródir og trúr þjón Drottins, kunngjøra ydur allt þar um. 22. Eg sendi hann þess vegna til ydar, ad þér fáid ad vita, hvørnig mér lídur, og til þess hann huggi ydar hjørtu.

23. Fridur veri med bræbrunum og elska, ásamt trú af Gudi Fødur og Drottni Jesú Kristi. 24. Nád sé med øllum þeim eilíflega, sem elska Drottinn vorn Jesúm Krist, Amen!

---

# S. Páls Pistill til Filippí-borgarmanna.

## 1. Kapítuli.

*Páll óskar Filippí-borgarmønnum góds; þakkar Gudi fyri þá og bidur fyrir þeim; lætur þá vita, ad fjøtur hans þéni til eflíngar kristninni, og segist vilja lifa og lída, ef þad þénad géti þeim til framfara; áminnir þá til støduglyndis vid kristilega trú.*

1. Páll og Tímóteus þjónar Jesú Krists, óska øllum Jesú Krists heiløgum, í Filippíborg, forstjórum og tilsjónarmønnum, 2. nádar og fridar frá Gudi vorum Fødur og Herranum Jesú Kristi.

3. Eg þakka Gudi mínum, í hvørt sinn, sem eg til ydar hugsa; 4. og ávallt, í øllum mínum bænum, bid eg med gledi fyrir øllum, 5. søkum fastheldni ydar vid nádarbodskapinn, frá því fyrsta allt til þessa tíma; 6. þared eg fulltreysti því, ad sá, sem hefir byrjad hid góda verkid med ydur, muni þad fullkomna, allt þar til Kristur kémur. 7. Þad er og

---

V. 13. 2 Kor. 6, 7. 10, 4. V. 14. 2 Kor. 6, 7. 1 Tess. 5, 8. Es. 59, 17. V. 15. Kap. 2, 14. V. 16. 1 Pét. 5, 9. V. 17. Hebr. 4, 12. Opinb. b. 1, 16. V. 18. Lúk. 18, 1 Kól. 4, 2. Matt. 24, 42. 25, 13. V. 19. Róm. 15, 30. Kól. 4, 3. 2 Tess. 3, 1. Post. gb. 4, 29. V. 20. 2 Kor. 5. 20. Post. gb. 28, 20. V. 21. Post. gb. 20, 4. Kól. 4, 7. V. 3. 2 Tess. 1, 1. Róm. 1, 8. Efes. 1, 15. 16. 2 Tess. 1, 3. V. 6. Hebr. 12, 2. Hebr. 13, 21. 1. Pét. 5, 10. Fil. 2, 13. 1 Tess. 5, 23. V. 7. Efes. 3, 1. Kól. 4, 3. 2 Tím. 1, 8.

viðurkvæmilegt fyrir mig, að hafa þvílíka þánka um ydur alla, sem ásamt mér erud ordnir hluttakandi í nádinni, þared eg hefi ydur sífeldt í huganum, hvört sem eg er í fángélsi, ellegar eg er að forsvara nádar lærdóminn og stadfesta hann. 8. Því Gud veit, að eg elska ydur alla með viðkvæmri ást, líkri Jesú Krists; 9. og bið eg að elska ydar eflist æ meir og meir, ásamt þekkíngu og gódum skilníngi, 10. svo að þér skilið gétið hvað rétt er, og séud rádvandir og ámælislausir allt til Krists adkomu dags, 11. og séud ríkir af ávöxtum kristilegrar dygdar, Gudi til lofs og dýrdar.

12. Vitið, brædur! að þad, sem fram við mig hefir komið, hefir mikið eflt framgáng nádar lærdómsins, 13. því að þad er kunnugt ordið gjörvallri Keisarans hird og öllum ödrum útífrá, að eg er fjötradur vegna Krists. 14. Margir brædur hafa og feingið dug af fjötrum mínum, og enn meiri djörfúng, til að kénna lærdóminn óskélfdir. 15. Sumir gjöra þad að sönnu af metníngi, öfund og þrætugirni, en aptur adrir boda Krist af velvilja (til mín). 16. Þeir, sem kjærleiki dregur til þess, gjöra þad vegna þess þeir vita, að eg er settur nádar lærdóminum til forsvars; 17. en hinir, sem gjöra þad af þrætugirni, boda ekki Krist af hreinu gédi, heldur meina, að þeir þar með bæti nýrri þreyngíngu ofaná fjötur mín. 18. En hvad um þad? Kristur bodast samt, með hvörjum helst hætti, sem þad skér, hvört þad skér af yfirdrepskap, edur með hreinskilni, og af því gledst eg, og mun framvegis gledjast; 19. því eg veit, að þetta verdur mér til heilla, sakir ydar bæna og með tilstyrk Jesú Krists anda. 20. Því þad er mín fastnæm laungun og von, að eg í eingu muni til skammar verda, heldur að Kristur muni, fyrir mína djarflegu kénníngu nú, eins og ávalt, vegsamast af mínum líkama, hvört heldur þad verdur með mínu lífi, edur dauda. 21. Að eg lifi, er vegna Krists, en að deya, er ávinníngur fyrir mig. 22. En ef líf líkamans er ábati fyrir verk mitt, þá veit eg ekki hvört eg á heldur að kjósa. 23. Eg á úr tvennu vöndu að ráda: mig lángar til að losast hédan og vera með Kristi, því þad væri miklu betra; 24. en þad er naudsynlegra ydar vegna, að eg dvelji í líkamanum, 25. og þad vona eg fyrir víst, að eg muni lifa og lifa ásamt ydur öllum, ydur til framfara í trúnni og gledi af henni; 26. svo að ydar fögnudur í Jesú Kristi vaxi fyrir mína skuld, þá eg kém aptur til ydar.

27. Einúngis að þér vildud hegda ydur verduglega, Krists nádar lærdómi samkvæmt, svo að hvört heldur eg kém og finn ydur, ellegar verd fjarlægur, þá megi eg fá þá fregn um ydur, að þér standið stödugir í einum anda, og verjið samhuga trú nádarlærdómsins, 28. og látið í engu hugfallast fyrir mótstödumönnunum, hvad þeim er glötunar fyrirbodi, en ydur heilla merki, og þad hvört um sig frá Gudi. 29. Því ydur er sú nád veitt, fyrir Krists sakir, ekki einúngis að trúa á hann, heldur og líða íllt hans vegna, 30. ydur, sem egið í sömu baráttu, sem eg, til hvörrar þér ádur vorud vitni og nú fáið fregn um.

V. 10. 1 Kor. 1, 8. V. 11, Ef. 5, 9. Kól. 1, 10. 11. 15, 8. V. 12. Kól. 4, 7. V. 14. Efes. 3, 13. 1 Tess. 3, 3. V. 16. v. 7. V. 19. 2 Kor. 1, 11. V. 20. 1 Kor. 6, 20. þeim þjáníngum eg líð á líkamanum. V. 21. Gal. 2, 20. V. 23. 2 Kor. 5, 8. V. 25. Kap. 2, 24. V. 27. Efes. 4, 1. Kól. 1, 10. 1 Tess. 2, 12. 4, 1. V. 28. Kap. 3, 14. 2 Tess. 1, 5. 2 Tím. 2, 11. V. 29. Post. g. b. 5, 41. Róm. 5, 3. V. 30. Post. g. b. 16, 22, fl, Kól. 2, 1.

## 2. Kapítuli.

Postulinn áminnir til bródurlegs kjærleika og lítillætis; ad dæmi Jesú, sem þar fyrir var upphafinn, skuli þeir og gjøra sig sømu dýrdar verduga; er reidubúinn ad deya fyrir Krists lærdóm. Segist senda Tímóteus en sídar Epafróditus. Gjørir sér jafnvel von um sjálfur ad géta komid til þeirra.

1. Þar fyrir, ef nokkud gyldir hjá ydur upphvatníng, í nafni Krists, kjærleiksfull advaran, hlutteknína í sømu andans gjøf og vidkvæmt hjarta-þel, 2. þá gjørid mína gledi fullkomna med því, ad þér séud allir med einum huga, hafid innbyrdis kjærleika, séud samlyndir og á eitt sáttir, 3. gjørid ekkért af þrætugirni, edur fyrir hégóma dýrd, heldur ad sérhvørr, med lítillæti, áliti annan sér ædri; 4. og sérhvørr líti ekki einúngis til síns gagns heldur og annara. 5. Láti sama lunderni vera í ydur, sem var í Jesú Kristi; 6. hvørr þó hann væri Guds eptirmynd, mikladist ekki af því, ad hann var Gudi líkur, 7. heldur mínkadi sjálfan sig, gjørdist þjón, vard mønnum líkur, 8. og ad útvortis hætti, sem madur. Hann lítillækkadi sig sjálfan, og var hlýdinn allt fram í daudann, já, fram í daudann á krossinum. 9. Þar fyrir hefir og Gud hátt upphafid hann, og géfid honum tign, sem er allri tign ædri, 10. svo ad øll kné skulu sig beygja fyrir Jesú tign, bædi þeirra, sem eru á himni og á jørdu, og undir jørdunni, 11. og sérhvør túnga vidurkénna, ad Jesús Kristur er Drottinn, Gudi Fødur til dýrdar. 12. Þess vegna, mínir elskanlegir! eflid ydar sáluhjálp med áhyggju og andvara. Þér hafid ætíd verid mér hlýdugir, gégnid mér ekki einúngis nálægum, heldur enn fremur nú í minni fjærveru. 13. Því þad er Gud, sem eptir sínni velþóknun kémur því til vegar í ydur, bædi ad þér a) viljid og framkvæmid. 14. Gjørid allt án møgls og þráttunar, 15. svo ad þér séud ólastanlegir og prettalausir, flekklaus Guds børn midt á medal aldarinnar rángsnúnu og gjørspilltu manna. Skínid á medal þessara eins og himin-ljós í heiminum, 16. og haldid fast vid lífsins lærdóm mér til sóma á degi Krists, ad eg hafi ekki til einkis hlaupid edur unnid til ónýtis.

17. En þó mínu blódi verdi úthellt yfir fórn og þjónustu mína ad trú ydvarri, þá gledst eg þar af, og samgledst ydur øllum. 18. En gledjist þér líka af því sama, og samgledjist med mér. 19. Eg hefi þá von til Drottins Jesú, ad eg brádum muni géta sendt Tímóteus til ydar, svo mér verdi hug-hægra, þá eg fæ ad frétta af ydur. 20. Engann hefi eg mér jafn-samlyndan, edur þann sem eins einlæglega sé annt um ydur. 21. Flestir leita egin hagnadar, en ekki þess, sem Jesú Krists er. 22. Þér þekkid Tímóteusar reyndu dygd, ad hann hefir, eins og sonur med fødur sínum, þjónad ad kristni-bodinu med mér. 23. Hann hygg eg ad senda strax, sem eg er búinn ad fullsjá

V. 2. Róm. 12, 6. 15, 5. 1 Kor. 1, 10. 1 Pét. 3, 8. V. 3. Gal. 5, 26. Róm. 12, 10. V. 4. 1 Kor. 10, 24. 33. 13, 5. V. 5. Matt. 11, 29. Jóh. 13, 15. 1 Jóh. 2, 6. V. 6. Kóloss. 2, 9. V. 7. Matt. 20, 28. Hebr. 4, 15. V. 8. Hebr. 12, 2. V. 9. Post. g. b. 2, 33—36. Hebr. 2, 9. Hebr. 1, 4. V. 10. Róm. 14, 11. Opinb. b. 5, 8. V. 11. Post. gb. 2, 36. Róm. 14, 9. 1 Kor. 8, 6. V. 13. a. 2 Kor. 3, 5. Hebr. 13, 21. 2 Kor. 8, 10. V. 14. 1 Pét. 4, 9. 1 Tím. 2, 8. V. 15. Ef. 5, 8. V. 16. 2 Tím. 1, 13. Tít. 1, 9. Hebr. 4, 14. 1 Tess. 2, 19. 1 Kor. 9, 24. V. 17. 2 Tím. 4, 6. 2 Kor. 7, 4. V. 18. Kap. 3, 1. 4, 4. V. 19. Post. g. b. 16, 1. Fil. 1, 27. V. 20. 1 Kor. 16, 10. V. 21. 1 Kor. 10, 24. 13, 5.

hvad um mig verdur; 24. en eg hefi þá von
til Drottins, ad eg brádum fái komist sjálfur.
25. Samt héldt eg naudsynlegt ad senda til yd=
ar bródur vorn Epafróditus, minn samlags þjón
og stríds = félaga í kristni = bodinu, en ydar út=
sendara og erindsreka í því, ad bæta úr naud=
þurft minni. 26. Hann saknadi ydar allra
svo mjøg, ad hann vard hugsjúkur út af því,
ad þér høfdud frétt, ad hann hefdi verid sjúk=
ur; 27. hann vard og veikur og nærri adkom=
inn dauda, en Gud miskunadi honum; en ekki
einúngis honum, heldur líka mér, svo mér
ekki bættist sorg á sorg ofan. 28. Þessa vegna
hrada eg því heldur ad senda hann, svo ad
þér gledjist, þá þér fáid ad sjá hann aptur, og
svo mér verdi hughægra. 29. Takid því med
øllum fagnadi á móti honum Drottins vegna,
og hafid þvílíka menn í heidri; 30. því ad í
Krists erindi var hann adkominn dauda, þared
hann fór óvarlega med líf sitt, svo hann upp=
bætti þad, sem brast á ydar umønnun fyrir mér.

## 3. Kapituli.

Páll teknr vara fyrir falskénnendum; segist einúng=
is hrósa sér af Jesú Kristi, og képpast eptir hnossi
eilífrar sælu; lastar þá holdlega sinnudu.

1. Framar, brædur mínir! gledjist í Drottni.
Mér skal ekki þykja mikid fyrir því, ad skrifa
sama og sama, en ydur er þad gagnlegt. 2.
Varid ydur á a) hundunum, varid ydur á þeim
vondu verkamønnum, varid ydur á afskurninni;
3. því vér erum þeir réttilega umskornu, vér,
sem dýrkum Gud andlega og hrósum oss af
Jesú Kristi, en høfum ekki traust á því hold=
lega; 4. jafnvel þó eg og svo í tilliti til þess
holdlega hafi þad, hvørju eg géti treyst; því ef
ødrum þykir, ad hann géti því holdlega treyst,
þá gét eg þad miklu fremur; 5. eg er um=
skorinn á áttunda degi, er af kyni Israels og
Benjamíns ættkvísl, Hebreskur í bádar ættir,
og ad sidavendni Fariséi. 6. Af vandlæti
fyrir trú fedra minna ofsókti eg søfnudinn, og
í rádvendni eptir løgmálinu var eg óstraffan=
legur. 7. En þad, sem (ádur) var mér á=
vinníngur, met eg nú tjón sakir Krists; 8. já,
eg álít allt fyrir tjón, hjá því ágjæti, ad fá
þekkíngu á Jesú Kristi, mínum Drottni, fyrir
hvørs sakir eg hefi mist allt, og met þad ekki
meir enn sorp, svo eg ávinni Krist, 9. og sé í
sameiníngu vid hann, og leiti ekki réttlætíngar
af hlýdninni vid løgmálid, heldur þeirrar rétt=
lætíngar, sem Gud veitir fyrir trúna á Jesúm
Krist; 10. ad eg ødlist þekkíngu á honum og
á krapti hans upprisu, og hlutteknígu í hans
píslum, og verdi líkur honum í daudanum,
11. ef mér audnast ad ná (lifa til) upprisu
enna daudu, (1 Tess. 4, 17). 12. Ekki svo
sem eg hafi þegar nád hnossinu, edur sé búinn
ad enda skeidid; heldur képpist eg eptir ad
høndla þad, þar Kristur hefir høndlad mig.
13. Brædur mínir, ekki álít eg mig enn hnoss=
inu hafa nád; 14. þad eitt segi eg: eg gleymi
því, sem bak vid mig er, en seilist eptir því,
sem fyrir framan er, og skunda til takmarks=

V. 25. Kap. 4, 18. V. 26. Kap. 1, 8. V. 29. Róm. 16, 2. 1 Kór 16, 18. 1 Tess. 5, 12. V. 1. Kap. 2, 18. Jak. 1, 2. 1 Pét. 4, 13. V. 2. 2 Kor. 11, 13. a. blygdunarlausum kénnurum. V. 3. Róm. 2, 29. Kól. 2, 11. Jóh. 4, 24. Þ. e. umskurninni, sem skédi á hold=inu, og ødrum útvortis yfirburdum, sjá v. 5, 1 Kor. 1, 31. V. 4. Post. gb. 23, 6. 2 Kor. 11, 18. V. 5. 1 Mós. b. 17, 12. 2 Kor. 11, 22. Post. g. b. 23, 6. V. 6. Post. g. b. 8, 3. Gal. 1, 13. fl. V. 8. Jóh. 17, 3. V. 9. Róm. 3, 21. 22. Róm. 1, 17. 10, 3. V. 10. Róm. 6, 1. fl. 8, 17. 1 Pét. 4, 13. V. 12. 1 Tím. 4, 8.

ins, til þess himneska a) hnossins, sem Gud frambýdur mér fyrir Jesúm Krist. 15. Þannig skulum vér þeinkja, sem fullkomnir erum. En ef þér erud nokkud annarar meiníngar, þá mun Gud opinbera ydur þetta; 16. einúngis ad vér gaungum eptir b) sømu (reglu), ad svo miklu, sem vér høfum faung á. 17. Brædur! breytid eptir mér og lítid til þeirra, sem breyta eins og vér, sem erum ydar fyrirmynd; 18. því margir breyta sem óvinir Kristí kross, um hvørja eg hefi optlega talad til ydar og enn þá tala grátandi, 19. hvørra endalok er tortýníng, hvørjir ed hafa magann fyrir sinn Gud, og þykir sómi ad skømmunum, og hugsa einúngis um þad, sem jardneskt er. 20. En vort fødurland er á himni, hvadan vér væntum Lausnarans, Drottins Jesú Krists, 21. hvørr med sama krapti, hvar med hann megnar ad leggja allt undir sig, mun ummynda líkama vorrar lægíngar, ad hann líkur verdi hans dýrdar líkama.

## 4. Kapítuli.

Postulinn hvetur til samlyndis; til gudrækilegrar gledi og ástundunar í øllu, sem gott er; hrósar Filippí-borgarmanna ørlæti vid sig; ber kvedjur.

1. Var fyrir, mínir elskanlegu og ástfólgnu brædur! þér mín gledi og heidurs kóróna! haldid ydur fast vid Drottinn, þér elskanlegir! 2. Evódiu og Syntykku áminni eg, ad þær séu samlyndar, sem kristnum ber; 3. einnig bid eg þig, minn trúlyndi medbródir! ad þú takir þær ad þér, því þær adstodudu mig, þá eg bodadi nádar lærdóminn, ásamt med Klemens og ødrum mínum lidsmønnum, hvørra nøfn standa í lífsins bók.

4. Gledjid ydur ávallt í Drottni; og enn aptur segi eg, gledjid ydur! 5. ydar hógværd verdi øllum kunnug; 6. Drottinn er nálægur. Verid ekki hugsjúkir um nokkurn hlut, heldur látid í øllum hlutum ydar óskir koma fyrir Gud, í bænum og fyrirbeidni ásamt med þakkargjørd. 7. Þá mun fridur Guds, sem yfirgengur allan skilníng, halda ydar hjørtum og hugsunum støduglega vid Jesúm Krist. 8. En framar, kjærir brædur! hvad, sem satt er og sómasamlegt, hvad réttvíst er, hvad skírlíft er, hvad elskuverdt er edur gott afspurnar, sé þar mannkostur edur fremd nokkur, géfid gaum ad því. 9. Breytid eptir því, sem þér hafid lært og medtekid og heyrt af mér og þér hafid sjed mig gjøra; þá mun fridarins Gud vera med ydur.

10. Nærsta mjøg gladdist eg í Drottni, ad ydar hagur hefir svo batnad, ad þér gátud hugsad til mín; hvad ed þér ad sønnu (alltaf) hafid gjørt, en ydur vantadi tækifæri. 11. Ekki segi eg þetta vegna minnar þarfar, því

V. 14. a. Lúk. 9, 62. 1 Kor. 9, 24. 1 Tím. 6, 12. 2 Tím. 4, 7. 1 Pét. 5, 10. Hebr. 3, 1. þ. e. eg gleymi þeim gædum, sem eg sleppti, þá eg gjørdist kristinn, sjá v. 4. 5., en képpist eptir ad ødlast þau gædi, sem Krists trú frambýdur, nefnilega eilífa sælu. V. 15. 1 Kor. 2, 6. 14, 20. Kól. 2, 10. 1 Kor. 14, 30. V. 16. b. Gal. 6, 16. V. 17. 1 Kor. 4, 16. 11, 1. 2 Tess. 3, 9. 1 Pét. 5, 3. V. 18. Róm. 16, 17. 18. Gal. 6, 12, Gal. 5, 21. V. 19. Kap. 1, 28. Róm. 16, 18. Róm. 8, 5. 6 Kól. 3, 2. V. 20. Efes. 2, 6. Hebr. 13, 14. 1 Tess. 1, 10. 4, 16. V. 21. 1 Kor. 15, 22. 43. 44. 1 Jóh. 3, 2. Matt. 17, 2. V. 2. Kap. 2, 2. 1 Pét. 3, 8. V. 3. Kap. 1, 27. Sálm. 69, 29. Dan. 12, 1. Lúk. 10, 20. Opinb. b. 3, 5. 13, 8. 20, 12. V. 4. Sálm. 32, 11, 2 Kor. 13, 11. 1 Téss. 5, 16. V. 6. Matt. 6, 25. 31. 1 Pét. 5, 7. 1 Tím. 2, 1. V. 7. Róm. 5, 1. V. 8. Róm. 12. 17. 13, 13. V. 9. Kap. 3, 17. Róm. 15, 33, 2 Tess. 3, 16. V. 11. 1 Tím. 6, 8.

eg hefi lært ad láta mér nægja þad, sem fyrir
hendi er. 12. Eg veit hvad þad er ad vera
í nidurlægíngu, eg veit og hvad þad er ad
hafa alls nægtir; í einu og sérhvørju er eg
reyndur ordinn, ad vera mettur og ad vera
svángur, ad hafa nægtir og lída skort. 13.
Allt megna eg fyrir þess hjálp, sem mig styrkv-
ann gjörir. 14. Engu ad sídur gjørdud þér vel í
því ad taka þátt í minni þreyngíngu. 15.
Þér vitid og, Filippí = borgarmenn! ad í upp-
hafi kristnibodsins, þegar eg fór frá Make-
doníu, ad enginn søfnudur hefir midlad mér
neinu í gáfu og þágu nafni, nema þér einir.
16. Því þá eg var í Tessaloniku, sendud þér
mér einusinni, já, tvisvar, til naudþurfta minna.
17. Ekki ad mér væri svo umhugad um gjøf-
ina, sem um ábata þann, er af henni flýtur í
ydar sjód. 18. Eg hefi medtekid allt, og hefi
yfirfljótanlega nóg, sídan eg medtók þad þér
sendud med Epafróditusi, þad ylmanda reykélsi,
þad Gudi kjæra og velþóknanlega offur. 19.
En minn Gud mun uppfylla allar ydar þarf-
ir af sinni dýrdlegu nægt vegna Jesú Krists. 20.
Gudi og Fødur vorum sé vegsemd ad eilífu, Amen.
21. Heilsid sérhvørjum heiløgum í Jesú
Kristi. Ydur heilsa brædurnir, sem med mér
eru. 22. Ydur heilsa allir heilagir, en sér-
deilis Keisarans venslamenn. 23. Nádin
Drottins vors Jesú Krists sé med ydur øll-
um, Amen.

# S. Páls Pistill til Kólossu = borgarmanna.

## 1. Kapítuli.

*Gódar óskir. Páll þakkar Gudi fyrir kristni = tøku þeirra og kristilega framfør, sem hann óskar ad vaxi. Talar um Krist og hans fridþægíngu; ad heidíngjarnir séu einnig hluttakandi þar í, og ad hann sjálfur sé verkfæri Guds þar til.*

1. Páll, ad Guds vilja Postuli Jesú Krists,
og Tímóteus bródir, 2. óska ydur, heiløgum
brædrum í Kólossu-borg og trúudum í Kristó,
nádar og fridar af Gudi vorum Fødur.
3. Þakkir gjørum vér Gudi, Fødur Drott-
ins vors, Jesú Krists, og bidjum ávalt fyrir
ydur, 4. frá því vér heyrdum um trú ydar á
Jesú Kristi og elsku til allra heilagra, 5. vegna
þeirrar vonar, sem ydur er geymd á himni,
og sem þér hafid ádur heyrt um í þeim fagn-
adarsæla sannleikans lærdómi, 6. sem til ydar
er kominn eins og um allann heim, hvar hann
ber ávøxt og útbreidist meir og meir, eins og
hjá ydur frá þeim degi þér heyrdud og feng-
ud þekkíngu á nád Guds ydur veittri med
sannleikans lærdómi, 7. eins og Epafras, vor
elskulegur samþjón, hefir ydur hann kénnt,
hvørr ad er trúr Krists þénari hjá ydur, 8.
hvørr og hefir sagt oss frá ydar kristilegum
kjærleika. 9. Þess vegna høfum vér einnig,
frá þeim degi vér heyrdum frá ydur, ekki af-
látid ad bidja fyrir ydur og óska, ad þér fyllt-

V. 12. 1 Kor. 4, 11. V. 13. Mark. 9, 23. V. 14. Kap. 1, 7. V. 17. Róm. 15, 28. 2 Kor. 9, 6. 12. V. 18. Kap. 2, 25, Róm. 12, 1. 1 Pét. 2, 5. V. 19. 2 Kor. 9, 8. V. 20. 1 Pét. 4, 11. V. 21. 2 Kor. 13, 12. V. 23. 1 Kor. 16, 23. V. 4. sann-kristinna. V. 9. skilníngi á Krists andlega lærdómi.

ust þekkíngar á Guds vilja, med allsslags speki og andlegum skilníngi, 10. svo ad þér breytid Drottni verduglega honum til þókknunar á allann hátt, 11. séud ávaxtarsamir í allskonar gódum verkum, vaxid í þekkíngu á Gudi, eflist af hans dýrdar mætti, í algjørdum dugnadi, til allsháttar þolgjædis og stødugljndis med gladværd. 12. Vér þøkkum Fødurnum, sem gjørdi oss hæfa til ad fá hlutdeild í arfleifd þeirra, sem af ljósinu helgadir eru, 13. med því hann þreif oss frá myrkursins valdi og flutti oss inn í ríki síns elskulega Sonar, 14. af hvørjum vér høfum lausnina, fyrirgéfníngu syndanna.

15. Hvørr ad er ímynd ósýnilegs Guds, frumgétníngur allrar sképnu; 16. því ad fyrir hann er allt skapad, sem er á himni og á jørdu, hid sýnilega og hid ósýnilega, hásæti, herraveldi, høfdíngjadómar og yfirrád; alltsaman er þad fyrir hann og handa honum skapad. 17. Sá hinn sami er og fyrri enn allt, og allt vidheldst fyrir hann; 18. hann er einnig høfud á safnadarins líkama, hann er upphafid, frumburdur enna daudu, svo ad hann hafi yfirburdi í øllu; 19. því þad þókknadist Gudi, ad øll fyllíng skyldi búa í honum, 20. og ad koma øllu í sátt vid sig fyrir hann, bædi því, sem er á jørdu og á himni, þá lét hann semja frid med sínu blódi á krossinum.

21. Einnig ydur, sem fordum vorud fráhverfir (Gudi) og óvinir (hans) í huga, søkum ydar vondra verka, 22. ydur hefir nú Jesús sátta gjørt, fyrir deydíngu síns holdlega líkama, svo hann láti ydur koma fram fyrir Gud, heilaga, lýtalausa og óadfinnanlega, 23. ef þér ad eins standid grundvalladir og stødugir í trúnni, og látid ekki bifa ydur frá von þess nádar-lærdóms, hvørn þér hafid numid og kéndur er sérhvørri sképnu undir himninum, hvørs þjón eg, Páll, og svo er ordinn.

24. Nú gled eg mig í mínum þjáníngum ydar vegna og uppfylli á mínu holdi þad, sem vantadi á Krists þjáníngar, fyrir hans líkama, sem er søfnudurinn, 25. hvørs þjón eg er ordinn, eptir þeirri rádstøfun Guds, sem mér er á hendur falin ydar vegna, ad útbreida Guds ord, 26. þann a) leyndardóm, sem hulinn var øldum og kynkvíslum, en nú er opinberadur hans heiløgum. 27. Þeim vildi Gud opinbera, hvílíkur dýrdar ríkdómur þessi leyndardómur er fyrir þjódirnar sem ad er Kristur í ydur, von dýrdarinnar. 28. Þenna kunngjørum vér, í því vér áminnum sérhvørn mann og frædum sérhvørn mann í allri speki, svo vér gétum b) leidt hvørn mann algjørvann í Kristó fram (fyrir Gud); 29. til þess vinn eg og strídi, styrktur af hans krapti, þeim er sýnir sig í mér volduglega krøptugan.

## 2. Kapituli.

Páll er áhyggjufullur, ad Kólossu-borgarmenn leidast kunni afvega af villumønnum, bidur því ad þeir haldi fast vid þá sønnu Krists trú; sannar, ad Jesús hafi géfid þeim betri sáluhjálpar medøl, enn útvortis helgi-sidir Gydínga og heidíngja gátu veitt.

1. Ekki vil eg dylja fyrir ydur, hvílíka bar-

V. 12. Krists lærdóms ljósi. Post. g. b. 26, 18. V. 15. Jóh. 14, 9. Fil. 2, 6. Hebr. 1, 3. V. 16. Jóh. 1, 3. Hebr. 1, 2. Efes. 1, 20. 21. V. 18. edur yfir alla. V. 19. annadhvørt, allsslags fullkomlegleikar. sbr. 2, 9. edur allsslags nádar-gædi. Jóh. 1, 16. V. 21. Róm. 8, 7. 8. Kólossu-borgarmenn høfdu, ádur enn kristnir urdu, verid heidnir, og lifdu í heidínglegum løstum. Róm. 1, 23—32. voru því óvinir Guds, þad er: gjørdu þad, sem Gudi var á móti. og gátu því ekki góds af honum vænt. V. 26. a. Efes. 1, 9. 3, 5—9. V. 27. 2 Kor. 13, 3. V. 28. b. samanb. v. 22. V. 1. áhyggju. Páll hafdi ekki sjálfur komid til Kólossuborgar.

áttu'eg hefi haft ydar vegna og þeirra, sem búa í Laódíseu, og svo margra, sem ekki hafa sjed mig sjálfan nærveranda, 2. til þess ad hjörtu þeirra mættu styrkjast, og þeir sjálfir í elsku sameinast, og ødlast gjørvallan ríkdóm fullkomins skilníngs, þekkínguna á Guds leyndardómi, 3. í hvørjum fólgnir eru allir fjársjódir spekinnar og þekkíngarinnar. 4. Þetta segi eg, svo enginn tæli ydur med mælskulegum ordum. 5. Því þó ad eg, ad líkamanum til, sé fjærverandi, þá er eg samt ydur nálægur í anda, og gledst, þá eg sje ydar reglusemi og fastheldni vid trúna á Krist. 6. Breytid þar fyrir samkvæmt lærdómi Drottins vors Jesú Krists, eins og þér hafid hann numid. 7. Rótfestir og a) bygdir á Kristó (sem grundvelli), stødugir í trúnni, eins og hún hefir ydur verid kénnd, og vaxandi í henni med þakkargjørd. 8. Varist, ad nokkurr (blindi) hertaki ydur med heimsspeki og hégómlegri villu, eptir b) manna setníngum, eptir c) stafrofi heimsins, en ekki eptir Kristó; 9. því í honum býr øll fylling (audlegd) Guddómsins líkamlega, 10. og í honum erud þér sannaudugir vordnir, honum sem er høfud alls d) høfdíngjadóms og yfirvalds; 11. fyrir hann erud þér og umskornir, þeirri e) umskurn, sem ekki er med høndum gjørd, heldur innifalin í afleggíngu syndum spilltrar náttúru, þad er, þér erud umskornir med Krists umskurn, 12. med því ad þér erud med honum greptradir í skírninni, í hvørri þér og erud med honum upprisnir, fyrir trúna á mátt Guds, er uppvakti hann frá daudum. 13. Einnig ydur, sem daudir vorud í yfirtrodslunum og f) yfirhúd ydvars holds, lífgadi Gud, eins og hann, med því ad hann fyrirgaf oss øll vor afbrot, 14. afmádi þad skuldabréf, sem stílad var í gégn oss og innifalid var í laga bodum, og burttók þad, þá hann negldi þad á krossinn. 15. Hann fletti vopnum hinna voldugu og mektugu, leiddi þá opinberlega fram til sýnis, og lét Krist hrósa sigri yfir þeim.

16. Látid þess vegna engann fordæma ydur fyrir mat edur drykk, edur nokkud þad, sem snertir hátídir, túnglkomur edur hvíldardaga, 17. hvad allt er ekki nema skuggi hins eptirkomanda, en Kristur er líkaminn sjálfur. 18. Látid engann taka hnossid frá ydur, er þykist af sinni audmýkt og Engla dýrkun, lætur drjúgt yfir því, sem hann aldrei hefir sjed, og upphrokast hégómlega af sínu holdlega hugarfari, 19. en heldur sér ekki til høfudsins, af hvørju allur líkaminn, styrktur og samtengdur med lidum og taugum, tekur gudlegann þroska. 20. Ef þér erud dánir med Kristi frá stafrofi heimsins, því bindid þér ydur þá vid þvílíka setnínga, eins og þér lifdud í heiminum: 21. „þú skalt g) ekki snerta, ekki smakka, ekki taka á"? 22. Allt þetta verdur til fordjørfunar, ef þad er brúkad eptir manna bodordum og lærdómum, 23. sem hafa ad sønnu á sér vitsku yfirbragd, en eru innifalin í sjálfgjørdri dýrkun,

---

V. 7. a. Efes. 2, 20—22. V. 8. b. Matt. 15, 5. 6. 9. c. sú ófullkomnari þekkíng øll, er menn høfdu ádur enn kristni kom, um þad, hvørnig Gud réttilega dýrkadist, Gal. 4, 3. 9. V. 10. d. Efes. 1, 20. 21. V. 11. e. 5 Mós. 6. 10, 16. Ef. 2, 11. V. 12. Róm. 6, 4. V. 13. f. Ofarsælir bædi hér og sídar; af heidinglegri sida spillingu og trúar villu. V. 14. lét Mósis Seremoníu laga gyldi deya med Jesú á krossinum, þad er: afmást med hans dauda. V. 15. Jóh. 12, 31. 1 Kor. 15, 25. 55. Hebr. 2, 14. V. 16. Róm. 14, 2. 3. 5. V. 18. Jer. 24, 8. Mark. 13, 5. Ef. 5, 6. 2 Tess. 2, 3. V. 19. Krists, Ef. 4, 15. 16. V. 20. Róm. 6, 3. 5 7, 4. Gal. 2, 19. 4, 3. 9. værud enn ekki upplýstir af Kristi. V. 21. g. 1 Tim. 4, 1. 4. V. 22. Tít. 1, 14. V. 23. 1 Tim. 5, 23.

mjúklæti og meingjørdum vid sjálfan sig, án þess ad rækja líkamann til gódrar hlítar.

## 3. Kapítuli.

Sannir kristnir eiga ad meta meira hid himneska enn þad jardneska, afleggja hid forna háttalag, en fylgja nýu; einkum stunda bródurlega elsku og hafa í ollu Krists vilja og bod fyrir augnamid; skyldur hjóna, barna, foreldra og þjóna.

1. Fyrst þér erud ásamt med Kristi uppрisnir, þá keppist eptir því, sem þar efra er, hvar Kristur situr til hægri handar Gudi. 2. Hafid hugann á því himneska, en ekki á því jardneska. 3. Því þér erud dánir, og líf ydvart er falid med Kristi hjá Gudi. 4. En þegar Kristur, vort líf, opinberast, þá munud þér og ásamt honum í dýrd opinberast. 5. Deydid því ydar jardnesku limu, frillulífi, saurlifnad, losta, vonda tilteygingu og ágirnd, hvad ekki er betra enn skurdgoda dýrkan. 6. Fyrir slíkt (athæfi) kémur hegníng Guds yfir þá vantrúudu, 7. í hvørra tølu þér fordum vorud, medan þér lifdud þessum løstum. 8. En afleggid nú allt þetta: reidi, stórlyndi, vondsku, lastmæli, svívirdilegt tal, framkomi ekki af ydrum munni. 9. Ljúgid ekki hvørr uppá annann, þar þér hafid afklædst hinum gamla manni og hans háttalagi, 10. en íklædist nýum, sem endurnýadur er til þekkíngar, samkvæmt þess mynd, sem hann hefir skapad. 11. Hér a) er enginn munur á Grískum manni og Gydíngi, á umskornum og óumskornum, útlendíng og Skyta, þræli edur frjálsum, heldur er Kristur allt og í øllum. 12. Íklædist þar fyrir, eins og Guds útvaldir heilagir og elskanlegir, hjartgróinni medaumkun, gódvild, lítillæti, hógværd, lánglundargédi; 13. umberid hvørr annann og fyrirgéfid hvørr ødrum, ef einhvørr ydar hefir kjærumál ødrum á móti; eins og Kristur hefir fyrirgéfid ydur, svo skulud þér og einninn gjøra. 14. En umfram allt íklædist elskunni, því hún er band algjørleikans; 15. þá mun fridur Krists ríkja í ydrum hjørtum; til þessa fridar erud þér einnig kalladir í einum líkama (samegínlega); og verid (fyrir þad) þakklátir. 16. Látid Krists lærdóm ríkuglega búa hjá ydur, svo ad þér med allri speki kénnid hvørr ødrum og áminnid hvørr annann med sálmum, saungum og andlegum lofkvædum, sætlega sýngjandi Drottni lof í ydrum hjørtum. 17. Hvad helst þér adhafist í ordi edur verki, þad gjørid í nafni Drottins Jesú, þakkandi Gudi og Fødur fyrir hann.

18. Þér konur! verid ydar bændum undirgéfnar eins og þeim hæfir, sem Drottins eru. 19. Þér menn! elskid ydar eginkonur og verid ekki beisklundadir vid þær. 20. Þér børn! verid hlýdug foreldrunum í øllu, því þad er Drottni þóknanlegt. 21. Þér fedur! upp-ertid ekki ydar børn, svo ad þau verdi ekki

V. 1. Róm. 6, 5. Efes. 2, 6. 1, 20. V. 4. Fil. 1, 21. 3, 21. 1 Kor. 15. 43. V. 5. girndir. Matt, 18, 8. Róm. 6, 13. Efes. 5, 3. 1 Tess. 4, 5. Efes. 5, 5. V. 6. 1 Kor. 6, 10. Gal. 5, 19. Efes. 5, 6. V. 7. Róm. 6, 19. 20. 7, 5. 1 Kor. 6, 11. Tit. 3, 3. V. 8. 2 Kor. 7, 1. Efes. 4, 22. 1 Pét. 2, 1. Jak. 1, 21. V, 9. Sak. 8, 16. aflagt hinn fyrri þenkíngar: og lífernis: hátt, er þér høfdud ádur enn kristni tókud. Efes. 2, 11. V. 10. Efes. 4, 23. 24. V. 11. í kristinnidóminum. Róm. 10, 12. Gal. 3, 28. Kap. 5, 6. 1 Kor. 14, 11. Efes. 1, 10. V. 12. 1 Tess. 1, 4. 1 Pét. 2, 9. Gal. 5, 22. Matt. 11, 29. V. 13. Efes. 4, 2. v. 32. Matth. 6, 14. V. 14. Jóh. 13, 34. 15, 12. Efes. 4, 3. Kól, 2, 2. V. 15. Fil. 4, 7. Kap. 2, 7. V. 16. 1 Kor. 14, 26. Efes. 5, 19. V. 17. 1 Kor. 10, 31. Efes. 5, 20. 1 Tess. 5, 18. V. 18. 1 Mós. b. 3, 16. 1 Kor. 14, 34. Efes. 5, 22. V. 19. Efes. 5, 25. V. 20. Efes. 6, 1. Sir. 3, 1—15. V. 21. Efes. 6, 4.

huglaus. 22. Þér þrælar! verid hlýdugir í
øllu ydar jardnesku drottnum, ekki med augna
þjónustu, svo sem þeir, er vilja mønnum þókn-
ast, heldur med hjartans einlægni, svo sem
þeir, er Drottinn óttast; 23. og gjørid allt, hvad
helst sem þér vinnid, med einlægu gédi, eins
og þad sé fyrir Drottinn, en ekki menn, 24.
vel vitandi ad þér munud taka sælu í arf til
endurgjalds, því þér þjónid Drottni Kristi.
25. En sá svikuli mun bera úr býtum svika-
laun, því hér gyldir ekkert manngreinar álit.

## 4. Kapítuli.

Skyldur vid drottna; steduglyndi í bæn, forsjálni í rædu og umgengni; Tykikus og Onesímus ega ad segja, hvornig Páli lídi; heilsanir; bréfid á ad lesast af þeim í Laódíseu. Arkippus áminnist. Gódar óskir.

1. Þér drottnar! veitid þrælunum þad, sem
rétt er og sanngjarnlegt, og munid til þess,
ad þér egid og Drottinn á himni.

2. Verid stødugir í bæninni og kostgjæfnir
med þakkargjørd. 3. Bidjid jafnframt fyrir
oss, ad Gud greidi veg vorri kénníngu, svo
vér kénnt gétum Krists hulda lærdóm, fyrir
hvørs sakir eg em nú bundinn, 4. ad eg megi
kunngjøra hann, eins og mér byrjar ad
tala. 5. Umgángist víslega þá, sem fyrir
utan søfnudinn eru, og gésid nákvæmlega gjæt-
ur ad tídarinnar ásigkomulagi. 6. Ydar ræda
sé ætíd ljúfleg og salti kriddud, svo ad
þér vitid, hvørnig þér skulud sérhvørjum
andsvara.

7. Vor elskulegur bródir Tykíkus, trúr þén-
ari Krists og minn samþjón, mun láta ydur
vita allt um mig. 8. Eg sendi hann til ydar
einmidt til þess, ad eg fái frétt af ydur, og til
þess hann huggi ydar hjørtu, 9. og ásamt
med honum Onesímus, trúann og elskulegann
bródur, landa ydar; þeir segja ydur allar frétt-
ir hédan.

10. Ydur heilsar Aristarkus, minn sam-
bandíngi, og Markús frændi Barnabasar, um
hvørn þér hafid bodord fengid. Ef hann kém-
ur til ydar, þá veitid honum góda móttøku.
11. Sømuleidis heilsar ydur Jesús, ad vidur-
nefni Jústus. Þessir eru umskornir og þeir
einustu sem hafa verid mínir medhjálparar í
í Guds ríkis útbreidslu og mér til mikillrar
huggunar. 12. En framar heilsar ydur Epa-
fras, Krists þjón og landi ydar. Hann stríd-
ir sífeldlega fyrir ydur med bænum, ad þér
megid stødugir standa, algjørdir og fullkomnir
í øllu því, sem Guds vilji er. 13. Því þann
vitnisburd géf eg honum, ad honum sé mjøg
annt um ydur og þá, sem búa í Laódíseu og
Híerópólis. 14. Læknirinn Lúkas, vor elskan-
legur, heilsar ydur, og Demas.

15. Heilsid þér brædrunum í Laódíseu,
Nymfasi og søfnudinum, sem kémur saman í
húsi hans. 16. Þegar þér erud búnir ad
lesa bréf mitt til ydar, þá látid líka lesa þad
í søfnudinum í Laódíseu; lesid þér og bréfid

---

V. 22. Efes. 6, 5. 1 Tím. 6, 1. Tít. 2, 9. V. 23. Efes. 6, 7. V. 25. 2 Kor. 5, 20. Post. gb. 10, 34. Róm. 2, 11. V. 1. Ef. 6, 9. Job. 31, 13. Jer. 34, 14. Filem. v. 16. V. 2. Lúk. 18, 1. Róm. 12, 12. V. 3. Ef. 6, 19. 1 Tess. 5, 25. 2 Tess. 3, 1. Hebr. 13, 18. 1 Kor. 2, 12. 1 Kor. 4, 1. V. 4. Tít. 1, 5. V. 5. Ef. 5, 15. 1 Tess. 4, 12. Ef. 4, 16. V. 6. Ef. 4, 29. Kól. 3, 16. Mark. 9, 50. V. 7. Ef. 6, 21. fl. V. 9. Filem. v. 10. V. 10. Filem. v. 24. Post. gb. 19, 29. 15, 37. 39. 2 Tím. 4, 11. V. 11. Post. gb. 11, 2. V. 12. Kap. 1, 7. Róm. 15, 30. V. 13. Róm. 10, 2. V. 14. Líklegast sami, sem Gud-spjallamadurinn Lúkas. 2 Tím. 4, 10. 11. Filem. v. 24. V. 15. Róm. 16, 5.

frá Laódíseu. 17. Segid Arkippusi: gjættú þjónustu Drottins, sem þú hefir tekid vid, ad þú gjørir henni fullnustu.

18. Kvedjan er skrifud med minni, Páls, egin hendi. Minnist fjøtra minna! Nád sé med ydur.

# S. Páls fyrri Pistill til Tessaloníku manna.

## 1. Kapítuli.

Gódar óskir. Páll þakkar Gudi og hrósar þeirra fúsleika ad taka kristni, þeirra bródur-kjærleika og þolinmædi.

1. Páll og Silvanus og Tímóteus, óska ydur, søfnudi Guds Fødurs og Drottins Jesú Krists í Tessaloníku, nádar og fridar af Gudi vorum Fødur og Drottni Jesú Kristi. 2. Avalt þøkkum vér Gudi fyrir ydur alla, þá vér minnumst ydar í vorum bænum, 3. og erum sífeldlega minnugir ydar atorkusømu trúar og óþreytanlegu elsku og stødugu vonar á Drottni vorum Jesú Kristi fyrir augliti Guds og Fødur vors. 4. Vér vitum, gódir brædur! af Gudi elskadir! hvørnig ydar útvalníngu var háttad, 5. ad eg bodadi ekki nádar lærdóminn ydar á medal med ordum einum, heldur med krapti, heiløgum Anda og fullkominni sannfæríngu. Þér vitid einninn, hvílíka vér sýndum oss ydur til handa hjá ydur. 6. Og þér erud vorir eptirfylgjarar ordnir og Drottins, med því þér medtókud lærdóminn undir miklum þreyngíngum med føgnudi heilags Anda, 7. svo ad þér erud ordnir fyrimynd allra trúadra í Maseboníu og Akkealandi; 8. því ad frá ydur hefir ord Drottins hljómad, ekki einúngis í Maseboníu og Akkealandi, heldur er og trú ydar á Gudi kunnug ordin allstadar, svo vér ekki þurfum um þad ad tala; 9. því menn gjøra ord á því, hvílíka komu vér áttum til ydar, og hvørnig þér snérud ydur til Guds frá skurdgodunum, til ad þjóna lifanda og sønnum Gudi, 10. og ad vænta hans Sonar frá himni, þann er hann uppvakti af dauda, Jesú er frelsar oss frá hinni yfirvofandi hegníngu.

## 2. Kapítuli.

Páll talar um, hvørnig hann hafi hegdad sér hjá þeim; þakkar Gudi fyrir, ad þeir svo fúslega tóku hans kénníngu, og talar um ofsóknir, er þeir lída mega; talar um laungun sína ad finna þá.

1. Sjálfir vitid þér þad, brædur! ad koma vor til ydar var ekki ávaxtarlaus; 2. heldur þótt vér ádur í Filippí-borg, eins og ydur er kunn-

V. 17. Filem. v. 2. V. 18. 1 Kor. 16, 21. Hebr. 13, 3. 1 Tím. 6, 21. V. 1. 2 Tess. 1, 1. Róm. 1, 7. fl. V. 2. Róm. 1, 8. 9. 2 Tess. 1, 3. fl. V. 3. Hebr. 6, 10. Kól. 1, 27. V. 4. 2 Tess. 2, 13. V. 5. 1 Kor. 2, 5. 4, 20. 1 Tess. 2, 13. sbr. Post. g. b. 17, 4. ydur til fullkomnunar. V. 6. 1 Kor. 4, 16. 11, 1. Fil. 3, 17. Post. gb. 5, 41. Hebr. 10, 34. V. 7. Kap. 4, 10. V. 9. Kap. 2, 1. Post. g. b. 26, 18. 1 Kor. 12, 2. Hebr. 9, 14. V. 10. Post. g. b. 1, 11. Fil. 3, 20. Opinb. b. 1, 7. Post. g. b. 2, 24. Matt. 3, 7. Róm. 2, 5. V. 1. Kap. 1, 5. 9. V. 2. Post. g. b. 16, 12. 19–24. 2 Kor. 12, 10. Fil. 1, 30. Post. g. b. 17, 11. 9.

ugt, lidum íllt og værum smánadir, þá kunngjørdum vér samt djarflega og í trausti til Guds vors hjá ydur nádar lærdóm vors Guds med mikilli baráttu. 3. Hvørki leiddi villa edur óhrein sérplægni edur vélar oss til ad kénna; 4. heldur, eins og Gud hefir fundid oss þess verduga, ad trúa oss fyrir nádar lærdóminum, þannig høfum vér kénnt hann; ekki, sem þeir, er mønnum vilja þókknast, heldur Gudi, sem ransakar vor hjørtu. 5. Því hvørki høfum vér nokkuru sinni farid med hræsni, eins og ydur er kunnugt, né leidst af ágirnd, Gud er þess vottur, 6. né leitad lofstýrs af mønnum, hvørki af ydur né ødrum. 7. Vér gátum verid ydur til þýngsla, sem Postular Krists, en vér sýndum oss vægdarsama vid ydur. 8. Eins og fóstra hjúkrar børnum sínum, eins erum vér ydur ástúdlegir, og erum fúsir til, ekki einúngis ad meddeila ydur nádar lærdóm Guds, heldur og til ad géfa ydur, vort egid líf, því þér erud ordnir oss ástfólgnir. 9. Þér munid, brædur! til erfidis vors og mædu; til þess vér værum engum ydar til þýngsla, unnum vér nótt og dag, á milli þess vér vorum ad boda ydur nádar-bodskap Guds. 10. Þér erud vitni til þess og Gud, hvørsu heilaglega, réttvíslega og ólastanlega vér hegdudum oss hjá ydur, sem vid trúnni høfdud tekid. 11. Ydur er og kunnugt hvørsu eg hefi áminnt, upphvatt og sárbænt sérhvørn ydar, eins og fadir børn sín, 12. ad þér breyttud verduglega Gudi, er kallad hefir ydur til síns ríkis og dýrdar.

13. Þar fyrir aflátum vér ekki ad þakka Gudi fyrir þad, ad þér medtøku veittud Guds ordi, er þér numud af oss og medtókud þad ekki sem manna lærdóm, heldur sem Guds ord, eins og þad í sannleika er, hvørt líka hefir sýnt sinn krapt á ydur, sem trúadir erud. 14. Brædur! ydar kjør hafa lík verid safnada Guds í Gydíngalandi, er játast hafa Jesú Kristi; því þér hafid þolad sama af ydar ættíngjum, 15. sem þeir af Gydíngum, er bædi líflétu Drottinn Jesúm og sína egin spámenn; oss hafa þeir og ofsókt, eru Gudi misþókknanlegir og øllum mønnum mótstædir; 16. þeir meina oss ad tala til heidíngjanna, ad þeir frelsist, og uppfylla þar vid mælir sinna synda, en ad lokunum mun straffid koma yfir þá.

17. Vér, Brædur! sem um stundar sakir høfum verid sviptir ydar návistum ad líkamanum til, en ekki huganum, høfum med því meiri alúd og laungun kappkostad ad sjá ydur. 18. Þar fyrir høfum vér — eg Páll — optar enn einusinni viljad koma til ydar, en Satan hefir hamlad oss frá því. 19. Því hvør er vor von, vor gledi, vor heidurs-krans, er vér getum stært oss af? Munud þér ekki einnig verda þad fyrir augliti Drottins vors Jesú Krists, þá hann kémur? 20. Þér erud vor sómi og vor gledi!

---

V. 3. 2 Kor. 7, 2. V. 4. Gal. 7, 2. 1 Tím. 1, 11. Gal. 1, 10. 1 Samúel. 16, 7. 1 Kóng. b. 8, 39. Sálm. 7, 10. Post. g. b. 1, 24. Róm. 8, 27. V. 5. Post. g. b. 20, 33. 2 Kor. 2, 18. Róm. 1, 9. 2 Kor. 1, 23. fylg. V. 6. Jóh. 5, 41. 44. 1 Kor. 9, 12. 2 Kor. 11, 9. 12. V. 7. sbr. v. 9. 2 Tess. 3, 7. 9. V. 8. 2 Kor. 12, 15. V. 9. Post. gb. 20, 34. 1 Kor. 4, 12. 2 Tess. 3, 8. 1 Kor. 9, 16. V. 10. 1 Tímót. 3, 2. V. 11. Post. gb. 20, 20. 31. Kap. 2, 7. V. 12. 1 Mós. b. 17, 1. Efes. 4, 1. 2 Tess. 1, 11. 1 Pét. 5, 10. V. 13. Matt. 10, 40. Galat. 4, 14. 1 Korint. 2, 5. 1 Tessal. 1, 5. V. 14. Post. g. b. 17, 5. 23. Hebr. 10, 34. V. 15. Post. g. b. 2, 23. Matt. 23, 34. V. 16. Post. g. b. 13, 50. 14, 5. 19. 17, 5. 13. Matt. 23, 23. V. 17. Róm. 1, 11. 1 Tess. 3, 6. V. 18. Róm. 15, 22. V. 19. Fil. 4, 1. 2 Tess. 1, 4.

## 3. Kapituli.

*Til þess ad frétta af Tessaloníku mønnum segist Páll hafa sendt Tímóteus, og þakkar Gudi fyrir þá gledifregn, er hann hafi fengid med honum um þeirra stodugglyndi. Girnist ad koma til þeirra.*

1. Þar fyrir, þegar vér máttum ekki leing-
ur vid þreyja, rédum vér þad af, ad verda
einir eptir í Atenuborg, 2. og sendum Tímó-
teum, bródur vorn og Guds verkamann medur
oss í Krists nádar bodskapi, til þess hann
efldi og ørfadi ydar trú, 3. ad enginn skuli láta
sig trufla af þessum þreyngíngum; því þér
vitid, ad þær eru oss ætladar. 4. Eg sagda
ydur þad og fyrir, þá eg var hjá ydur, ad
vér mundum þreyngíngar lída, hvad líka hefir
rætst, eins og ydur er kunnugt. 5. Þar fyrir,
þegar eg mátti ekki lengur vid þreyja, þá senda
eg til ad frétta um trú ydar, hvørt freistarinn
hefdi ekki freistad ydar, og vinna vor ordid
til einkis. 6. En nú er Tímóteus aptur kom-
inn frá ydur til vor, og ber oss gledi-fregn
um trú ydar og kjærleika, og ad þér ávalt
minnist vor til góds, og girnist ad sjá oss,
eins og vér ydur. 7. Þannig hafid þér,
brædur! huggad oss í allri vorri þreyngíngu
og neyd med ydar trúfesti; 8. þvi nú lifum
vér a), fyrst þér haldid støduglega vid Drottinn.
9. Hvørt þakklæti megnum vér ad gjalda
Gudi fyrir ydur, fyrir alla þá gledi, er vér
høfum af ydur fyrir Guds augliti?
10. Nótt og dag bidjum vér innnilega, ad
oss mætti hlotnast ad sjá ydur og bæta úr
brestum trúar ydar; 11. en sjálfur Gud og
Fadir vor og Drottinn vor Jesús Kristur greidi
veg vorn til ydar. 12. En Drottinn fylli yd-
ur og audgi elsku bædi innbyrdis ydar á milli
og til allra, eins og vor elska er til ydar; 13.
uppá þad ad ydar hjørtu megi stadfestast í
heilagleika og þér birtast fyrir Gudi og vor-
um Fødur óstraffanlegir, þá Drottinn vor
Jesús Kristur kémur ásamt øllum hans heiløgu.

## 4. Kapítuli.

*Páll upphvetur til framfara í heilagri rádvendni, bródur-kjærleika og gódum sidum. Talar um ad þeir, sem deya ádur enn Kristur kémur til dóms, einkis fari á mis fyri þad.*

1. En framar bidjum vér ydur, brædur!
og áminnum í umbodi Drottins Jesú, med
því þér hafid numid af oss, hvørnig ydur ber
ad breyta og þókknast Gudi, ad þér takid
hér í meiri og meiri framførum. 2. Þér
vitid, hvør bodord vér høfum ydur géfid í um-
bodi Drottins Jesú; 3. því þad er Guds
vilji, ad þér heilagir séud, haldid ydur frá
frillulifnadi; 4. hvørr og einn hafi vit á, ad
halda sínum líkama í heilagleika og heidri,
5. en ekki losta-bruna, eins og heidnir menn,
er ekki þekkja Gud; 6. veiti ekki yfirgáng ed-
ur hafi af sínum bródur í nokkru, því ad
Drottinn er hegnari alls þvílíks, eins og eg
hefi ádur sagt og innilega lagt ydur uppá

---

V. 1. ad frétta ekkért ad ydur. V. 2. Post. g. b. 17, 14. 15. Fil. 2, 19. Róm. 16, 21. Kól. 4. 8. V. 3. Efes. 3, 13. Filipp. 1, 14. Póst. g. b. 14, 22. 2 Tím. 3, 12. V. 4. Jóh. 14, 25. 29. Post. gb. 17, 1. 1 Pét. 4, 13. V. 5. Kól. 4, 8. leidt til ad falla frá kristni, eda til ókristilegrar breytni. Matt. 4, 3. 1 Kor. 7, 5. V. 6. þad er: til annara. Kap. 2, 17. V. 8. a. (glødu lífi). V. 10. Róm. 1, 10. 1 Tess. 2, 17. V. 12. Kap. 4, 9. 1 Pét. 1, 22. 4, 8. V. 13. 2. Tess. 2, 17. Ef. 1, 4. Kól. 1, 22. Oplnb. b. 14, 5. 1 Kor. 1, 8. Fil. 1, 10. V. 1. 2 Tess. 3, 12. Gal. 5, 16. Fil. 1, 27. V. 2. 2 Kor. 5, 20. V. 3. Róm. 12, 2. Efes. 5, 17. 1 Kor. 6, 15. 18. V. 4. 1 Kor. 6, 13. 15. V. 5. Kól. 3, 5. 1 Kor. 15, 34. Ef. 2, 12. 4, 17. 18. V. 6. 1 Kor. 6, 8. Gal. 5, 21.

hjarta; 7. því ekki hefir Gud kallad oss til þess, ad vér skyldum í saurlífi lifa, heldur í heilagleika. 8. Þess vegna hvørr, sem þetta forsmáir, hann forsmáir ekki menn, heldur Gud, sem og hefir inngéfid oss sinn heilaga Anda. 9. Ekki hafid þér þess þørf, ad eg skrifi ydur um bródur=kjærleikann, því Gud hefir sjálfum ydur kénnt ad elskast innbyrdis. 10. Já, þér audsýnid þessa sømu elsku jafnvel øllum brædrunum út um alla Masedoníu. En vér áminnum ydur, brædur! ad þér takid hér í meiri og meiri framførum, 11. og leitid þar í sœmdar ad lifa rósømu lífi og stunda ydar eigin idn, og vinna med høndum ydrum, eins og eg hefi ydur bodid, 12. svo ad þér umgángist sómasamlega þá, sem utan (safnadar) eru, og séud uppá engann komnir.

13. Ekki vil eg, brædur, láta ydur vera í vanþekkíngu um þá burtsofnudu; svo ad þér séud ekki hryggvir, eins og þeir, sem vonarlausir eru; 14. því ef vér trúum því, ad Jesús sé dáinn og upp aptur risinn, þá mun Gud sømuleidis fyrir Jesúm leida til sín þá, sem sofnadir eru; 15. því þad segi eg ydur í Drottins orda stad: ad vér, sem eptir verdum lífs vid tilkomu Drottins, ad vér munum ekki fyrri verda, enn þeir burtsofnudu; 16. því sjálfur Drottinn mun med ákalli, med Høfudengils raust og med Guds lúdri af himni nidurstíga; og þeir, sem í Kristó eru dánir, skulu fyrst upp rísa; 17. sídan munum vér, sem eptir erum lifandi, verda hrifnir til skýa ásamt þeim, til ad mœta Drottni í loptinu, og munum vér sídan med Drottni vera alla tíma. 18. Huggid svo hvørr annann med þessum ordum.

## 5. Kapítuli.

Páll hvetur til ad vanda líferni sitt, þared Krists koma til dómsins sé hulin; áminnir til elsku vid Kénnifedur, til fridsemi og fleiri dygda, og árnar mønnum þar til Guds adstodar; kvedjur og skipar ad láta alla lesa Pistilinn.

1. En um ákvedna tíma (nær þetta skuli ské) er ekki þørf eg skrifi ydur, brædur! 2. því sjálfir vitid þér gjørla, ad dagur Drottins mun koma sem þjófur á nóttu. 3. Þegar menn segja: „nú er fridur og øllu óhætt," þá mun snøgg eydilegging koma yfir þá, eins og jódsótt yfir ólétta konu; og þeir munu ekki géta umflúid. 4. En þér, brædur! erud ekki í myrkri, svo ad sá dagur géti yfir ydur komid sem þjófur. 5. Því allir erud þér ljóssins synir og dagsins synir. Vér erum ekki (synir) næturinnar og myrkursins; 6. látum oss því ekki sofa, a) eins og adrir gjøra, heldur vaka og vera ódrukkna b); 7. því þeir, sem sofa, sofa um nætur, og þeir, sem drekka,

V. 7. Jóh. 17, 19. 1 Kor. 1, 2. V. 8. þad er: Páls advaranir. 1 Kor. 7, 40. V. 9. Kap. 3, 12. 2 Pét. 1, 7. Esa. 54, 13. Jóh. 13, 34. 15, 12. 1 Jóh. 3, 11. fl. V. 11. 2 Tess. 3, 8. 12. V. 12. Róm. 13, 13. þad er: þá sem ekki høfdu kristni tekid. Kól. 4, 5. 1 Pét. 2, 12. V. 14. Róm. 14, 9. 2 Kor. 5, 15. V. 15. 1 Kor. 7, 10. Kap. 15, 23. 51—53. V. 16. Matt. 24, 30. 31. 2 Tess. 1, 7. 10. 1. Kor. 15, 52. V. 17. Opinb. b. 11, 12. Post. g. b. 1, 9—11. 2 Kor 5, 10. Jóh. 14, 3. 17, 24. 2 Kor. 5, 8. V. 18. 2 Kor. 13, 11. V. 2. Lúk. 12, 39. 40. 2 Pét. 3, 10. Opinb. b. 3, 3. V. 3. Jer. 6, 14. 8, 11. Lúk. 21, 34. V. 4. þad er: vanþekkíngu, vitid því hvørnig þér egid ad búa ydur undir þessa tíd. Efes. 5, 8. Opinb. b, 16, 15. V. 5. Ljóss og dags synir kallast þeir, sem upplýstir eru af Krists lærdómi. Lúk. 16, 8. Jóh. 8, 12. 12, 46. Róm. 13, 12. 13. V. 6. a. þ. e. vera hugsunarlaus um breytni vora. Efes. 5, 14. Lúk. 21, 36. 1 Kor. 15, 34. b. þad er: gjætnir og haldandi girndum í taumi.

drekka á nóttum. 8. En látum oss, sem erum dagsins synir, vera ódrukkna, íklæðda í brynju trúarinnar og kjærleikans og hjálmaða með von hjálpræðisins; 9. því Guð hefir ekki ætlað oss til ófarsældar, heldur til að øðlast sáluhjálp vegna Drottins vors Jesú Krists, 10. sem dó fyrir oss, svo hvørt vér vektum eður svæfum þá skyldum vér ásamt honum lifa. 11. Áminnið því hvørr annan, og efli hvørr yðar sálarheillir annars, eins og þér og gjørið.

12. Þess biðjum vér yður, bræður! að þér hafið mætur á þeim, sem vinna hjá yður og veita yður forstøðu, af Drottins hálfu og áminna yður, 13. og að þér auðsýnið þeim sérlega virðíngu og elsku fyrir verk þeirra. Verið friðsamir innbyrðis. 14. En framar áminni eg yður, bræður, að þér áminnið hina óstýrilátu, huggið ístøðulitla, styðjið þá, sem veikir eru, hafið umburðarlyndi við alla. 15. Sjáið til, að enginn gjaldi íllt með íllu, en stundið ávallt gott að gjøra, bæði hvørr øðrum innbyrðis og øllum út í frá. 16. Verið ætíð glaðir. 17. Biðjið án afláts. 18. Gjørið þakkir fyrir allt, því það er Guðs vilji, yður kunnur gjørr fyrir Jesúm Krist. 19. Utsløkkvið ekki andann. 20. Fyrirlítið ekki spádóms gáfur, 21. prófið heldur allt, og haldið því, sem gott er. 22. Haldið yður frá íllu, í hvørri mynd, sem það sýnir sig. 23. En sjálfur friðarins Guð helgi yður algjørlega, og allur yðar andi, sála og líkami, varðveitist flekklaust í tilkomu Drottins vors Jesú Krists. 24. Trúfastur er sá, er yður hefir kallað, hvørred og mun binda enda á sitt fyrirheiti. 25. Bræður! biðjið fyrir oss.

26. Heilsið øllum bræðrunum með heiløgum kossi. 27. Eg særi yður í nafni Drottins, að þér látið lesa bréf þetta fyrir øllum heiløgum bræðrum.

28. Náðin Drottins vors Jesú Krists sé með yður.

# S. Páls síðari Pistill til Tessaloníku manna.

## 1. Kapítuli.

Góðar óskir. Páll þakkar Guði fyrir þeirra staðuglyndi og þolinmæði; huggar þá í þeirra þreyngíngum og biður fyrir þeim.

1. Páll, Silvanus og Tímóteus, óska yður Tessaloníku mønnum, søfnuði Guðs vors Føðurs og Drottins Jesú Krists, 2. náðar og friðar af Guði Føður vorum og Drottni Jesú Kristi.

V. 8. Esa. 59, 17. Róm. 13, 12. Efes. 6, 14. 17. V. 9. Róm. 6, 23. V. 10. Róm. 14, 8. 9. 2 Kor. 5, 15. V. 11. Hebr. 10, 24. fl V. 12. 1 Kor. 16, 18. Gal. 6, 6. Fil. 2, 29, 1 Tím. 5, 17. V. 13. 1 Kor. 9. 11. V. 14. Matt. 18. 15. 2 Tess. 3, 6. 11. Róm. 14, 1. Kap. 15, 1. V. 15. Orðskv. 6. 17, 13. 20, 22. Matt. 5, 39. Hebr. 12, 14. V. 16. Lúk. 10, 22. Róm. 12, 12. V. 17. Lúk. 18, 1. Kól 4, 2. V. 18. Efes. 5, 20. Kól. 2, 7. V. 19. Efes. 4, 23. 30. V. 20 1 Kor. 12, 10. V. 21. Róm. 2, 18. Fil. 1, 10. V. 22. Fil. 4, 8. V. 23. Róm. 15, 33. 1 Kor. 1, 8. Kól. 1, 22. V. 24. 1 Kor. 1, 9. 10, 13. 2 Tess. 3, 3. V. 25. Kól. 4, 3. V. 26. Róm. 16, 16. 1 Kor. 16, 20. V. 27. Kól. 4, 16. V. 28. Fil. 4, 23. V. 1. 1 Tess. 1, 1. V. 2. 1 Kor. 1, 3. fl.

3. Skyldt er þad, brædur, ad vér ætíd
þøkkum Gudi fyrir ydur, eins og verdugt er;
því trú ydar þróast ódum, og elska ydar inn=
byrdis, hvørs fyrir sig og allra saman, sýnir
sig ríkuglega, 4. svo ad vér sjálfir gétum í
ødrum Guds søfnudum stært oss af ydur, fyr=
ir ydar stødugleyndi og trúfesti í øllum þeim of=
sóknum og þreyngíngum, er þér eigid undir ad
búa. 5. Þetta er røksemd fyrir réttdæmi Guds,
ad þér verdugir álítist Guds ríkis, fyrir hvørs
sakir þér nú íllt lídid; 6. med því Gud álít=
ur þad réttvíst, ad endurgjalda þeim þreyng=
íngu, er ad ydur þreyngja, 7. en ydur, sem
adþreyngdir erud, hvíld med oss, þegar Drott=
inn Jesús opinberast, af himni med sínum veld=
is Englum, í loganda eldi, 8. og lætur hegníngu
gánga yfir þá, sem ekki þekkjast og ekki hlýda
nádar lærdómi Drottins vors Jesú Krists; 9.
hvørjir sæta munu maklegri hegníngu, eilífri
gløtun, útskúfadir frá augliti Drottins og frá
hans veldis dýrd, 10. þá hann kémur til ad
vegsamast medal sínna heiløgu, og til ad sýna
sig dásamlegan á øllum þeim, sem trúa; því á
þeim degi mun þad, sem vér vottudum fyrir
ydur, satt reynast. 11. Þess vegna bidjum
vér alla tíma fyrir ydur, ad Gud vor álíti yd=
ur verduga sínnar kallanar, og krøptuglega full=
komni allan honum velþóknanlegan gódleik og
verk trúarinnar, 12. svo ad nafn Drottins vors
Jesú Krists vegsamist á ydur, og þér af hon=
um, fyrir nád Guds vors og Drottins Jesú
Krists.

## 2. Kapítuli.

*Páll hrindir þeirri ímyndun, ad Krists koma verdi svo brádum. Lofar Gud fyrir útvalníngu Tessaloníku=manna, áminnir þá og bidur fyrir þeim.*

1. En hvad áhrærir tilkomu Drottins vors
Jesú Krists og vora samsøfnun til hans, þá
bid eg ydur, brædur, 2. ad þér ekki séud fljót=
ir á, ad láta ydur hræda og trufla, hvørki af
nokkurum anda, edur vid kénníngu edur bréf,
svo sem þad væri frá oss, eins og (tilkomu=)
dagur Drottins væri þegar fyrir høndum. 3.
Látid engan villa ydur á nokkurn hátt; því
fyrst hlýtur fráfallid ad ské, og madur synd=
arinnar ad auglýsast, sá gløtunar sonurinn, 4.
er setur sig á móti og hefur sig upp yfir allt
þad, sem Gud edur heilagt kallast; og þad svo,
ad hann setur sig í Guds musteri, og tjer sig
eins og væri hann Gud. 5. Minnist þér ekki
þess, ad eg sagdi ydur þetta, þá eg enn þá
var hjá ydur? 6. Og þér vitid, hvad þad er,
sem nú aptrar honum, til þess hann opinberist
á sínum tíma; 7. því leyndardómur gudleysis=
ins a) er þegar farin ad brydda á sér, einúng=
is ad sá verdi úr vegi tekinn, er nú aptrar
því; 8. því þá mun hinn gudlausi koma í
ljós, hvørjum Drottinn Jesús mun tortýna med
anda síns munns, og ad engu gjøra, þá hann

---

V. 3. 1 Tess. 1, 2. 2 Tess. 2, 13. Lúk. 17, 5. Kól. 2, 7. Tít. 2, 2. V. 4. 2 Kor. 9. 2. 1 Tess. 2. 19. V. 5. Lúk. 21, 36. 1 Tess. 2, 14. V. 6. Jer. 5, 24. Sak. 2, 12. V. 7. þ. e. fríun frá mædu og farsælt líf. 1 Tess. 4, 16. 1 Pét. 4, 13. Matt. 25, 31. V. 8. 2 Pét. 3, 7. Róm. 10, 16. V. 9. Esa. 2, 19. Matt. 25, 41. V. 10. Post. gb. 1, 11. Kól. 3, 4. Opinb. b. 1, 7. V. 11. 1 Tess. 5, 17. 2, 12. Ef. 1, 5. 11. V. 12. 1 Kor. 1, 31. V. 1. 1 Tess. 4, 16. 17. V. 2. þad er: neinum, sem þækist hafa gudlega andagift. 1 Jóh. 4, 1. V. 3. Jer. 29, 8. Efes. 5, 6. Kól. 2, 18. 1 Jóh. 2, 18. Opinb. b. 13, 11. V. 4. Dan. 11, 36. Opinb. b. 13, 1. 4–6. Efes. 28, 2. V. 5. Jóh. 16, 4. Post. g. b. 17, 1. V. 6. 1 Jóh. 4, 3. 2, 18. V. 7. a. þ. e. gudleysi sem ádur var hulid og ekki bar á. V. 8. þad er: sínum kroptuga mætti. Esa. 11, 4. samb. Sálm. 33, 6. Opinb. b. 19, 15.

birtist dýrdlega í tilkomu sinni. 9. En til-
koma hins (ógudlega) sýnir sig á þeim glöt-
udu, fyrir framkvæmd Satans, í allskonar krapti,
táknum og undrum lýginnar og í allsslags vél-
um ránglætisins, 10. vegna þess þeir gáfu
ekki sannleiks elskunni inngáng hjá sér, svo þeir
hólpnir yrdu. 11. Þar fyrir mun Gud senda
þeim megna villudóma, ad þeir trúi lýgi, 12.
svo allir straffist, sem ekki trúa sannleikanum,
en hafa velþóknun á ránglætinu.

13. En skyldt er, ad vér ávalt þökkum Gudi
fyrir ydur, brædur, Drottins elskanlegu! ad
Gud hefir frá upphafi útvalid ydur til sáluhjálp-
ar fyrir helgun andans og trú til sannleikans.
14. Til þess kalladi hann ydur med vorri
kénníngu, ad þér skyldud ödlast dýrd Drottins
vors Jesú Krists. 15. Brædur! standid
því stödugir og haldid fast vid þær lífs-
reglur, er þér numid hafid, annadhvört
af kénníngu vorri edur bréfi. 16. En sjálfur
Drottinn vor Jesús Kristur og vor Gud
og Fadir, sem elskadi oss og gaf oss af nád
eilífa huggun og góda von, 17. hann
huggi ydar hjörtu og gjöri ydur stadfasta í
sérhvörjum gódum lærdómi og gódri breytni.

## 3. Kapituli.

Páll bidur Tessaloníku-menn ad bidja fyrir sér, huggar þá og bidur fyrir þeim; varar vid umgengni ósidsamra; hvetur ad draga dæmi af sér til idjusemi og gódra verka; gefur reglur um, hvornig skuli haga sér vid óhlýdnga. Kvedja.

1. Enn framar, brædur! bidjid fyrir oss,
ad Drottins lærdómur megi ódum útbreidast
og vegsamlegur verda, eins og hjá ydur, 2.
og ad vér mættum frelsast frá ósidudum og
vondum mönnum; því ekki er öllum ad trúa,
3. en Drottinn er trúr, og hann mun styrkja
ydur og geyma fyrir illu. 4. Enn hefi eg þad
traust til Drottins, ad þér hlýdid og munud
hlýda því, sem eg hefi bodid ydur; 5. en
Drottinn leidi ydar hjörtu til Guds kærleika
og þolinmædi Krists.

6. Enn bjódum vér ydur, brædur! í nafni
Drottins vors Jesú Krists, ad þér haldid yd-
ur frá hvörjum þeim bródur, er hagar sér ó-
sidlega, og fjærstædt þeim lífs-reglum, er eg
hefi fyrir ydur lagt. 7. Sjálfir þekkid þér,
hvörnig ydur ber ad taka oss til eptirdæmis;
8. því ekki lifdum vér ósidlega hjá ydur, né
þádum vort braud af nokkrum géfins, heldur
unnum vér med elju og atorku nótt og dag,
svo vér værum engum ydar til þýngsla; 9.
ekki þess vegna ad oss brysti heimild til þess,
heldur til þess, ad vér gjætum verid ydur fyr-
irmynd, til ad breyta eptir. 10. Því, þá eg
var hjá ydur, baud eg ydur, ad ef einhvörr
vildi ekki vinna, ætti hann ekki heldur mat ad
fá. 11. En vér heyrum, ad sumir medal
ydar lifi í óskikki, vinni ekkért, heldur eydi tíd-
inni til óþarfa. 12. Í Drottins vors Jesú

V. 9. Jóh. 8, 41. 2 Kor. 4, 4. Efes. 2, 2. Matt. 24, 24. Opinb. b. 13, 13. V. 10. 2 Tím. 4, 4. V. 11. Róm, 1, 24. 1 Tím. 4, 1. V. 12. v, 10. V. 13. Kap. 1, 3. Efes. 1, 4. 1 Tess. 1, 4. V. 14. 1 Pét. 5, 10. V. 16. Róm. 5, 8. Gal. 2, 20. V. 17. 1 Tess. 3, 13. V. 1. Róm. 15, 30. Matt. 9, 38. V. 2. Post. Post. g. b. 2, 40. Róm. 15, 31. Róm. 10, 18. V. 3. 1 Kor. 1, 9. 10, 13. 1 Pét. 5, 10. Jóh. 17, 15. V. 6. Róm. 16, 17. 1 Kor. 5, 11. 13. Tít. 3, 10. 2 Jóh. v. 10. 1 Tess. 4, 11. V. 7. 1 Kor. 4, 16. Fil. 3, 17. 1 Tess. 2, 10. V. 8. Post. g. b. 20. 34. 1 Kor. 4, 12. 1 Tess. 2, 9. 2 Kor. 11, 9. V. 9. Matt. 10, 10. 1 Kor. 9, 4. 6. 1 Kor. 4, 16. 1 Tess. 1, 6. V. 10. 1. Mós. b. 3, 19. Efes. 4, 28. V. 12. Róm. 15, 30. 1 Tess. 4, 11.

Krists umbodi bjódum vér slikum og áminnum
þá, ad þeir erfidi í kyrd og vinni sjálfir fyrir sér.
13. Brædur! þreytist ekki gott ad gjøra.
14. Ef sá nokkurr, sem ekki hlýdir minni á-
minníngu í þessu bréfi, þá athugid hann, og
hafid engin afskipti af honum, svo hann blygd-
ist; 15. en álítid hann samt ekki sem óvin,
heldur áminnid hann sem bródur. 16. En
sjálfur Drottinn fridarins veiti ydur frid ætíd
og í øllu! Drottinn sé med ydur øllum!
17. Kvedjan er skrifud med minni, Páls,
egin hendi; þad er merki sérhvørs bréfs frá
mér. Svona skrifa eg. 18. Nádin Drottins
vors Jesú Krists sé med ydur øllum, Amen!

# S. Páls fyrri Pistill til Tímóteusar.

## 1. Kapítuli.

Gódar óskir. Páll áminnir Tímóteus ad hindra afbakadann skilníng Mósis laga, og prísar undir eins Krists lærdóms krapt til ad lagfæra menn og farsæla.

1. Páll Postuli Jesú Krists, eptir ráð-
støfun Guds vors Frelsara og Jesú Krists,
sem er vor von, 2. óskar Tímóteusi, sínum sann-
nefndum syni i trúnni, nádar, miskunar og
fridar af Gudi vorum Fødur og Drottni vor-
um Jesú Kristi.
3. Þá eg fór til Makedoníu, beidda eg þig
ad vera kyrran í Efesus og bjóda vissum
mønnum, ad þeir kénni ekki annarlegann lær-
dóm, 4. og géfi ekki gaum ad æfintýrum og enda-
lausum ættartølum, er framar valda þrætum,
heldur enn efla þá rádstøfun Guds, sem trúnni
vidvíkur. 5. Því adaltilgángur kénníngarinn-
ar er kjærleikurinn af hreinu hjarta, gódri sam-
vitsku og hræsnislausri trú; 6. en frá þessu
eru sumir viknir og hafa snúid sér til þvætt-
íngs, 7. þeir látast vera løglærdir, þótt þeir
hvørki skilji sjálfir hvad þeir segja eda hvad
þeir fullyrda. 8. Vér vitum, ad løgmálid er
gott fyrir hvørn þann, sem brúkar þad rétti-
lega, 9. og eg veit, ad løgmálid er ekki sett
þeim réttlátu, heldur þeim ránglátu og þver-
brotnu, ógudlegum og stórsyndurum, andvara-
lausum og vanheiløgum, fødurbønum og módur-
bønum, manndrápurum, 10. frillulífis mønn-
um, þeim sem skømm drýgja med kallmønnum,
selja menn mannsali, lygurum, meinsæris mønn-
um, og gégn sérhvørju ødru, sem gagnstædt
er hreinum lærdómi þeim, 11. er inniheldst í
þeim dýrdlega nádar bodskapi hins sæla (ó-
daudlega) Guds, sem mér er á hendur falinn.
12. Og eg þakka Drottni vorum Jesú Kristó,
þeim er mig hefir styrkvann gjørt, fyrir þad

V. 13. Gal 6, 9. V. 14. Matt. 18, 17. 1 Kor. 5, 9. 11. V. 15. Gal. 6, 1. 2. V. 16. Róm. 15, 33. 16, 20. Fil. 4, 9. Matt. 28, 20. V. 17. 1 Kor. 16, 21. Kól. 4, 18. V. 1. Post. g. b. 9, 15. 13, 2. Kól. 1, 27. Hebr. 2, 10. V. 2. Tít. 1, 4. Fil. 2, 20. 22. V. 3. Post. g. b. 20, 1. 3. Gal. 1, 6. 7. V. 4. Kap. 4, 7. 6, 4. 2 Tím. 2, 16. 23. V. 5. Matt. 22. 37—40. V. 7. Jóh. 3, 10. sbr. Matt. 23, 13. V. 8. Róm. 7, 12. þ, e. Mósis løgmál. V. 9. Mósis løgmál midar sérdeilis til ad koma mønnum til ad fordast lesti, Krists trú krefur meira, sjá v. 5. V. 10. 2 Mós. 21, 16. V. 11. Kap. 6, 15. 16. V. 12 Post. g. b. 9, 15.

ad hann áleit mig trúann og setti mig til þinnar þjónustu, 13. mig, sem fordum var lastari, ofsóknari og smánari; en eg hefi miskun ødlast, søkum þess eg gjørdi það í vantrú af vanþekkíngu. 14. Já, ríkuglega hefir náð Drottins vors tjed sig í ad efla trú mína á Jesú Kristi og elskuna til hans. 15. Það er sannur lærdómur og í allann máta medtækilegur: ad Jesús Kristur er kominn í heiminn til ad gjøra syndugа hólpna, á medal hvørra eg er hinn helsti. 16. En þess vegna hefi eg miskun ødlast, ad Kristur sýndi á mér stórsyndugum sitt mikla lánglundar-geð, til eptirdæmis fyrir þá, sem síðar trúa á hann, þeim til eilífs lífs. 17. En þeim ódaudlega, ósýnilega aldanna Konúngi, honum, sem aleinn er Gud, sé heidur og dýrd um aldir alda, Amen! 18. Þetta er sú áminníng, er eg fyrirlegg þér, son minn, Tímóteus! ad þú, eptir því, sem ádur er um þig spáð, tjáir þig gódann stríðsmann, 19. sért fastheldinn vid trúna og góða samvitsku, hvørri nokkrir hafa frá sér varpað og þess vegna lidid skipbrot á trú sinni. 20. Í þessara tølu eru þeir Hymeneus og Alexander, hvørja eg hefi géfið í Satans vald, svo ad þeir af refsíngunni læri ad gudlasta ekki.

## 2. Kapítuli.

Páll skipar ad bidja fyrir øllum. Reglur um það, hvornig karlmenn og kvennmenn skuli hegda sér í þeirra gudrækniss samkomum.

1. Fyrst og fremst áminni eg til þess, ad menn framberi bænir, óskir, fyrirbænir og þakkargjørd fyrir øllum mønnum; 2. fyrir Konúngum og valdsmønnum, svo vér med spekt og rósemi lifað gétum gudrækilega og sómasamlega. 3. Þetta er gott og þókknanlegt fyrir Gudi vorum Frelsara, 4. sem vill ad allir hólpnir verdi og komist til þekkíngar á sannleikanum, 5. því einn er Gud og einn er medalgángarinn milli Guds og manna, madurinn Jesús Kristur, 6. sem gaf sig sjálfann til lausnargjalds fyrir alla, til vitnisburdar á tilsettri tíð; 7. hann ad boda er eg settur prédikari og Postuli, heidinna þjóða lærimeistari í trúnni og sannleikanum; það segi eg satt og lýg ekki.

8. Þar fyrir vil eg ad karlmenn, hvar helst sem þeir samankoma til bænagjørdar, upplypti heiløgum høndum án reidi og þrætu. 9. Sømuleidis vil eg ad konurnar skrýdi sig sómasamlegum búníngi, med blygd og hófsemi, ekki med hárfléttum, gulli, perlum og dýrindis búníngi, 10. heldur (eins og þeim konum sómir, er sýna vilja gudrækni) med góðum verkum. 11. Konan á ad læra (taka á móti kénníngunni) hljóðlega, med allri undirgéfni, 12. en ekki leyfi eg nokkurri konu ad kénna eda ráða yfir karlmanni, heldur á hún vera kyrrlát; 13. því fyrst var Adam myndadur, Eva þar á eptir; 14. og Adam tældist ekki, heldur var konan tæld og gjørdist brotleg. 15. En hún verdur hólpin vegna barn-burdarins, ef þau standa stødug í trú, kjærleika og heilagleika samfara hófsemi.

---

V. 13. Post. g. b. 8, 3. 9, 1. 3, 17. V. 15. Matt. 9, 13. 18, 11. 1, 21. V. 17. Róm. 16, 27. V. 20. 2 Tím. 2, 17. 2 Tím. 4, 14. Post. g. b. 19, 33. 1 Kor. 5, 5. sbr. Post. g. b. 26, 18. Kól. 1, 13. 1 Jóh. 3, 8. Jóh 8, 41–44. V. 2. Jer. 29, 7. V. 6. Ef. 1, 7. ad Gud vilji fyrirgéfa syndirnar. Gal. 4, 4. V. 7. Post. gb. 9, 15. Róm. 11, 13. Gal. 2, 8. 9. 2 Kor. 12, 6. V. 8. Jóh. 4, 21. 2 Makk. b. 3, 20. V. 9. 1 Pét. 3, 3. 4. sbr. Tít. 2, 3. sbr. 1 Kor. 11, 3–18. Esa. 3, 16. fl. V. 10. Efes. 2, 10. sbr. Jak. 2, 18. V. 12. 1 Kor. 14, 34. Efes. 5, 22. Tít. 2, 5. V. 13. 1 Mós. b. 1, 27. 2, 7. 18. V. 14. 1 Mós. b. 3, 6. 2 Kor. 11, 3. V. 15. Konan var skøpud til þess ad mannkynid gjæti tímgast.

## 3. Kapítuli.

*Reglur, hvílíkum þeim birji ad vera, sem takast til forstødu- og þjónustu-manna safnadanna; minnir Tímóteus á grundvell kristilegrar trúar.*

1. Þad eru sannmæli, ad ef nokkurr girnist Biskups embætti, þá girnist hann ágætan hlut. 2. Þar fyrir byrjar slíkum tilsjónarmanni ad vera ólastanlegum, einnar konu eginnmanni, árvøkrum, hófsømum, sídprúdum, gestrisnum, vel føllnum til ad kénna; 3. ekki drykkjumadur, né offstopasamur, heldur gjæfur, frásneiddur deilum og ógjarn; 4. sá ed veiti sínu heimili góda forstødu og med spekt haldi børnum sínum hlýdugum. 5. Því hvørr, sem ekki hefir vit á ad veita sínu heimili forstødu, hvørnig má hann umsjón veita søfnudi Guds? 6. Ekki nýkristnadur, svo ad hann ekki upphrokist og verdi fyrir rógberarans áfelli. 7. Honum ber einnig hafa gódann ordstír hjá þeim, sem fyrir utan (søfnudinn) eru, ad hann falli ekki í fyrirlitníngu og tálsnørur rógberarans.

8. Sømuleidis ega Djáknarnir ad vera heidvirdir, ekki tvímælis-menn, ekki vínsvelgjarar, ekki sólgnir í ljótann gróda; 9. heldur vardveiti trúarinnar leyndardóm í hreinni samvitsku. 10. Þessir skulu reynast fyrst, og sídan takast til embættisins, ef þeir eru ólastanlegir. 11. Sømuleidis ega konur þeirra ad vera heidvirdar, ekki bakmálugar, heldur árvakrar, trúar í øllu. 12. Djáknarnir séu einnar konu eginmenn, veiti børnum sínum og heimilum góda forstødu; 13. því þeir, sem þjóna vel, afla sér góds frama og mikillar djørfúngar í trúnni á Jesú Kristi. 14. Þetta skrifa eg þér, þó eg voni ad koma brádum til þín, 15. svo ad þú vitir, ef mér seinkar, hvørnig þú skulir haga þér í Guds húsi, sem er søfnudur lifanda Guds, stólpi og grundvøllur sannleikans. 16. Og vafalaust er þessi leyndardómur gudrækninnar mikilvægur: Gud birtist í holdinu; er réttlættur af andanum; sjen af Englunum; bodadur medal heidinna þjóda; trúadur í heiminum; uppnuminn í dýrd.

## 4. Kapítuli.

*Postulinn áminnir enn Tímóteus ad fyrirbyggja ránga lærdóma og ad fordast þá sjálfur. Hann gefi af sér gott eptirdæmi og sé trúr í sínu embætti.*

1. En Andinn segir med berum ordum: ad á sídustu tídum muni nokkrir gánga af trúnni, festa trú til villu anda og djøfla lærdóma, 2. sem af flárædi kénna lygar og eru brennimerktir á samvitskunni, 3. banna ad giptast og ad neyta fædu, er Gud hefir þó skapad, til þess hennar sé neytt med þakkargjørd af trúudum, er komnir eru til þekkíngar á sannleikanum; 4. því ad øll Guds sképna er gód og engin burtkastanleg, sé hún medtekin med þakkargjørd, 5. því hún helgast med Guds ordi og bæninni. 6. Þegar þú brýnir þetta fyrir brædrunum, þá sýnir þú þig gódan þjón Jesú Krists, vel mentadan í lærdóm-

V. 1. Tilsjónar-manns í søfnudinum. Post. g. b. 20, 28. V. 2. sbr. Tít. 1, 5—9. V. 3. 3 Mós. b. 10, 9. 2 Tím. 2, 4. V. 8. sjá Post. g. b. 6, 3. 1 Tím. 3, 3. V. 9. Krists lærdóm, er ádur var óþekktur. Efes. 1, 9. 10. 3, 4. 5. 9. Kol. 1, 26. 1 Kor. 2, 7. Kap. 1, 19. V. 11. Tít. 2, 3. V. 12. v. 2. 4. V. 13. 1 Jóh. 3, 21. V. 16. 1 Kor. 3, 11. Efes. 2, 20. Jóh. 17, 3. 6. Í ellstu handritum og útleggíngum Nýa Testam. stendur: Sá, sem birtist, o. s. frv. Jóh. 1, 14. 1 Jóh. 4, 2. fl. Róm. 1, 4. Post. g. b. 10, 38. samanb. Matt. 3, 16. Lúk. 2, 40. Jóh. 10. 36. 38. (sjá Matt. 12, 28. sbr. vid Lúk 11, 20.) Lúk, 24, 51. Post. g. b. 1, 9. V 1. Matt. 24, 24. Mikk. 2, 11. 1 Jóh. 4, 1. 2, 18. 2 Pét. 2, 1, 2 Tess. 2, 1—12. V. 4. 1 Mós. b. 1, 31. Post. g. b. 10, 15. Kól. 2, 16. V. 5. sbr. Tít. 1, 15.

um trúarinnar og þeirri ágjætu kénníngu, hvørri þú hefir hlýdnast. 7. Fordast þú vanheiløg æfintýri og kérlínga hégyljur, en æf sjálfan þig í gudhrædslu. 8. Líkamleg æfíng er til lítils nýt, en gudrækni er til alls nytsamleg, og hefir fyrirheit bædi fyrir þetta líf og hid tilkomanda. 9. Þetta eru sannmæli allrar samsinníngar verdug. 10. Þess vegna leggjum vér á oss erfidi og þolum fyrirlitníngu, því vér høfum sett vora von til ens lifanda Guds, sem er Frelsari allra manna, einkum trúadra. 11. Kunngjør þú þetta og kénn!

12. Enginn fyrirlíti þig vegna þinnar æsku, en vertú trúadra fyrirmynd í lærdómi, hegdun, elsku, trú, skírlífi. 13. Ver kappsamur í lestri, áminníngum, kénníngu, þángad til eg kém. 14. Vanræktu ekki þér veitta nádargáfu, hvør þér var fyrirspád vid handa uppáleggíngu Öldúnganna. 15. Gjættu ad þessu, vertú allur í því, svo ad þín framfør sé audsjen í øllu. 16. Haf gát á sjálfum þér og lærdóminum; vertú stødugur vid þetta; því ef þú gjørir þad, munt þú gjøra sjálfan þig hólpinn og þá, sem þig heyra.

## 5. Kapituli.

Hvornig Tímóteus egi ad haga áminníngum sínum vid eldri menn og ýngri. Ekkjur ega sérdeilislega ad njóta ølmusu safnadarins og kénnendur; hvørjar ekkjur egi ad fá þar í hlutdeild. Áminníng um varúd ad straffa Öldúnga og um gjætni í ad velja til þess embættis.

1. Ávíta ekki gamlan mann hardlega, heldur áminn hann sem fødur; hina ýngri, sem brædur; 2. aldradar konur, sem mædur; úngar, sem systur, med allri sidsemi.

3. Heidra ekkjur, sem eru sannar ekkjur; 4. en ef nokkur ekkja á børn eda afkomendur, þá læri þeir fyrst og fremst ad audsýna rækt ættmønnum sínum og endurgjalda foreldrum, því þad er þókknanlegt fyrir augliti Guds. 5. Sannarleg ekkja, sem er adstodarlaus, hún hefir sett von sína til Guds, og er stødug í bæn og ákalli til hans nótt og dag. 6. En hin býlífa er daud þó hún lifi. 7. Kunngjør þú þetta, svo þær séu óadfinnanlegar. 8. En ef sá er nokkur, sem ekki vill annast náúnga, helst ef þeir eru heimilismenn hans, hann hefir afneitad trúnni og er verri enn heidíngi. 9. Ekkja má ekki veljast ýngri enn sextug, sú er verid hefir eins manns kona og kunn er ad góðverkum, 10. ad hún hafi uppalid børn, verid géstrisin, hafi þvegid fætur trúadra, hjálpad naudstøddum, kappkostad allt gott. 11. En hjá úngum ekkjum skaltú sneida þig, því þegar þær af gjálífi hætta ad hirda um Krist, girnast þær ad giptast, 12. og gjørast sekar, þar ed þær brjóta sitt fyrra heit. Slíkar venja sig á ydjuleysi og húsgaungur; 13. þær eru ekki einúngis ydjulausar, heldur og málugar, hlutsamar, og tidka ósæmilegt tal.

V. 7. Kap. 1, 4. 2 Tím. 2, 16. 23. V. 12. Nokkur handrit Nýa Testamentisins bæta hér inni: í anda. V. 13. Kristnir héldu sømu venju eins og Gydíngar brúkudu í samkundu-húsum sínum, ad lesa part úr Biblíunni og sá, sem fann sig hæfann, tók þar af tækifæri ad géfa søfnudinum áminníngar og meddeila lærdóma. Lúk. 4, 16. 20–22. Post. g. b. 13, 15. 42. sbr. 1 Kor. 14, 19. 31. V. 14. Kap. 1, 19. sbr. 1 Kor. 14, 24—26. Post. gb. 6, 6. 7. 8, 17. 13, 3. V. 16. Sbr. Post. gb. 20, 28. V. 1. Sbr. 3 Mós. b. 19, 32. sbr. 2 Tess. 3, 15. V. 4. Matt. 15, 4. V. 5. Lúk. 2. 37. V. 8. Tít. 1, 16. V. 9. sbr. v. 14. vid Mark. 10, 12. Matt. 19, 7. og 5 Mós. b. 24, 3. 4. V. 10. þad er: sýnt þénustusemi. 1 Mós b. 18, 4. 19, 2. V. 13. Ordskv. b. 7, 11. Tít. 2, 3.

14. Eg vil því ad enar úngu ekkjur giptist, ali børn, stjórn húsi, og géfi mótstødumanninum ekkért tilefni til ills umtals; 15. því nokkrar eru þegar fallnar frá, og hafa snúid sér til Satans. 16. Ef nokkur trúadur eda trúud á ekkjur sér skyldar, hjálpi þau þeim, ad þær séu ekki søfnudinum til byrdi, og ad hann géti hjálpad sannarlegum ekkjum.

17. Þeir Öldúngar, sem veita góda forstødu, metist tvøfaldlega, allra helst þeir, sem sveitast vid ad kénna og fræda, 18. því Ritníngin segir: þú skalt ekki múlbinda nautid, sem erjar. Sømuleidis: verdur er verkamadurinn launanna.

19. Ekki skaltú móttöku veita ákæru gégn Öldúngi, nema tvø eda þrjú vitni beri; 20. en þá, sem misbrjóta, skaltu ávíta í allra nærveru, svo ad hinir hafi og svo ótta þar af. 21. Eg særi þig fyrir augliti Guds, Drottins Jesú Krists og útvaldra Engla, ad þú gjætir þessa fylgislaust og gjørir ekkért af medhaldi.

22. Vertú ekki fljótur til ad leggja hendur yfir nokkurn; taktú ekki heldur þátt í annara syndum; geym þig sjálfan óflekkadan. 23. Drekk ekki framar vatn, heldur neyt lítils víns vegna maga þíns og þíns jafnadarlega heilsubrests. 24. Sumra manna syndir eru svo berar, ad þær fordæmast fyrirfram, adrar þekkjast eptirá; 25. sømuleidis lýsa sum gódverk sér strax, en þau, sem ekki eru þannig, géta ekki heldur dulist.

## 6. Kapítuli.

Þræla skyldur. Falskennenda lærdómur leidir til þrætu og ágirndar; Tímóteus áminnist til gudhrædslu; hvad hann skuli kénna þeim ríku; Hann gjæti trúlega síns embættis, en fordist þrættíng.

1. Ánaudugir þrælar haldi sína drottna alls heidurs verduga, svo nafn Guds og lærdómurinn verdi ekki fyrir lasti. 2. Þeir, sem trúada húsbændur ega, fyrirlíti þá ekki, vegna þess þeir eru brædur, heldur þjóni þess fúslegar, vegna þess þeir eru trúadir og elsku verdir, sem þyggja ega þá trúu þjónustu. Kénn þú þetta og áminn um þad. 3. Hvørr, sem ødruvísi kénnir, og ekki fylgir vors Drottins Jesú Krists heilsusama lærdómi og kénníngu, sem leidir til gudhrædslu, hann er, þrátt fyrir hroka sinn, fávís; 4. en er sólginn í vafa-spurníngar og orda deilur, af hvørjum kviknar øfund, þræta, lastmæli, illir grunir, 5. ónytju athafnir hugspilltra manna, hvørjum sannleikurinn er horfinn, og sem hafa gudrækninа sér til fjárplógs. Þesshattar menn skaltú fordast. 6. Í sjálfri sér er gudhrædslan mikill ávinníngur samfara nægjusemi. 7. Fyrst vér høfum ekkért innflutt í heiminn, þá er þad bert ad vér ekkért munum þadan géta burtu haft. 8. Þess vegna, ef vér høfum fædu og skýli, þá látum oss nægja. 9. Þeir þar á mót, sem ríkir vilja verda, falla í freistíngar og snørur og margar girndir dárlegar og skadlegar, er nidursøkkva mønnunum í ólukku og gløtun; 10. því ad auraelskan er rót til alls ills, í hvørja nokkrir hafa

V. 14. 1 Kor. 7, 9. Tít. 2, 8. V. 15. nefnilega: kristni, med því þær hafa gipst heidnum mønnum. Ef. 2, 2. V. 16. sbr. v. 8. V. 18. 5 Mós. b. 25, 4. 5 Mós. b. 24, 14. Matt. 10, 10. 1 Kor. 9, 9—14. V. 19. 5 Mós. b. 17, 6. 19, 15. V. 20. sbr. Matt. 18, 17. Ef. 5, 11. 5 Mós. b. 17, 13. 19, 20. V. 22. Post. g. b. 6, 6. 8, 17. 13, 3. 19, 6. 2 Tím. 1, 6. V. 24. samanb. v. 22. Gal. 5, 19. V. 25. Matt. 10, 26. V. 1. Efes. 6, 5. fl. Róm. 2, 24. Tít. 2, 5. 8. V. 2. þad er: þeirra samkristnir. V. 4. 1 Kor. 8, 2. V. 5. Tít. 1, 11. 2 Pét. 2, 13. V. 6. Ordskv. b. 15, 15. 16. 1 Tím. 4, 8. V. 7. Job: 1, 21. Préd. 5, 15. Sálm. 49, 17—21. V. 8. Ordkv. b. 30. 8. Matt. 6, 29. V. 9. Ordskv. b 23, 4. 28, 20. 22. 11, 28. Jak. 5, 1. 5. V. 10. 2 Mós b. 23, 8. 5 Mós. 16, 19. Ordskv. 15, 16.

svo fíkst, ad þeir hafa villst frá trúnni og bakad sér mørg harmkvæli. 11. En þú Guds madur, umflý þvílíkt, en kappkosta réttvísi, gudhrædslu, trú, kjærleika, þolinmædi, ljúflyndi. 12. Berstú trúarinnar gódu baráttu, handsama eilíft líf, þar til ertú kalladur, og þar ad vannstu góda játníngu í nærveru margra votta. 13. Eg áminni þig fyrir augliti Guds, sem allt lífgar, og Jesú Krists, er gjørdi þá gódu játníngu frammi fyrir Pontsíus Pílatus, 14. ad þú gjætir skyldu þinnar lýtalaust og óadfinnanlega allt til opinberunar Drottins vors Jesú Krists, 15. hvørja á sínum tíma mun birtast láta hinn sæli og alleina voldugi Konúngur Konúnganna og Drottinn Drottnanna; 16. hann, sem einn er ódaudlegur, sem býr í því ljósi, er enginn fær tilkomist; hvørn enginn madur hefir sjed; honum sé heidur og æfinlegt veldi, Amen!

17. Bjód ríkum mønnum þessarar aldar ad þeir séu ekki mikillátir, og treysti ekki fallvøltum audi, heldur lifanda Gudi, sem veitir oss ríkuglega allt gott til naudþurftar; 18. ad þeir gjøri gott, séu ríkir af góðverkum, ørlátir, fúsir ad midla ødrum, 19. safni sér í fjársjódu gódum stofni til hins ókomna, svo þeir ødlist hid sanna líf. 20. Kjæri Tímóteus! gjæt þess, sem þér er trúad fyrir, en fordast vanheilagar hégómaræður og þrætumál speki þeirrar, er svo ránglega nefnist; 21. hvørri nokkrir hafa gefid sig vid, og eru því trúnni fráviltir ordnir. 22. Nád sé med þér, Amen!

# S. Páls sídari Pistill til Tímóteusar.

## 1. Kapituli.

*Gódar óskir. Postulinn hrósar trú Tímóteusar, hvetur til atorku, þolinmædi í þjáníngum og fastheldni vid hreinann lærdóm. Kvartar yfir nokkrum, hrósar ødrum.*

1. Páll, Postuli Jesú Krists, settur ad Guds vilja til ad boda lífid fyrir Jesúm Krist, 2. óskar sínum elskulega syni Tímóteusi nádar, miskunar og fridar af Gudi Fødur og Drottni vorum Jesú Kristi.

3. Eg þakka Gudi, hvørjum eg þjóna med hreinni samvitsku, ad síd forfedra minna, í því eg án aflátz minnist þín í mínum bænum nótt og dag. 4. Þegar mér renna í hug tár þín, lángar mig til ad sjá þig, svo ad mín gledi verdi fullkomin. 5. Eg man til þinnar falslausu trúar, er fyrst bjó í ømmu þinni Lóis og módur þinni Evníku; en eg er fullviss um ad hún líka býr í þér. 6. Þess vegna minni eg þig á ad glæda hjá þér gáfu Guds, sem

V. 12. 1 Kor. 9, 25. 26. Fil 3, 12. 14. 2 Tím. 2, 5. 2 Tím. 4, 7. V. 13. Róm. 4, 17. Jóh. 18, 36. 37. V. 15. 5 Mós. b. 10, 17. V. 16. 1 Jóh. 1, 5. 4, 12. 2 Mós. b. 33, 20. V. 17. Kap. 5, 7. Job. 31, 24. 25. Sálm. 62, 11. Matt. 6, 19. Lúk. 12, 15—20. Jak. 5, 2. 3. V. 17. Matt. 6, 25—34. V. 18 5 Mós. b. 15, 7. 10. Lúk. 12, 21. Jak. 2, 8. 14 — 17. Róm. 12, 8. V. 19. Matt. 6, 20. Lúk. 16, 9. V. 3. Post. g. b. 23. 1. Róm. 1, 9. Ef. 1, 16. V. 5. Post. gb. 16, 1. V. 6. Sbr. Citatíur vid 1 Tím. 4, 14.

þér er veitt með minni handa uppáleggíngu;
7. því ekki hefir Guð géfið oss hugleisis anda,
heldur máttar, kjærleiks og hygginda. 8. Fyr-
irverð þig því ekki fyrir vitnisburð Drottins
vors, né fyrir mig, hans bandíngja, heldur
vert sampolugur nádar lærdóminum, styrktur
krapti Guðs, 9. sem oss hefir frelsað og kall-
að með heilagri köllun, ekki fyrir vorra verka
sakir, heldur eptir sinni ráðstøfun og náð, sem
hann hafði frá eilífð fyrirhugað oss fyrir
Jesúm Krist, 10. en sem nú er augljós orðin
við komu vors Frelsara Jesú Krists, sem hefir
afmáð dauðann, en leidt í ljós lífið og ódauð-
leikann með sínum náðar lærdómi, 11. hvørs
prédikari, Postuli og kénnari eg er meðal heiðinna
þjóða. 12. Fyrir þá skuld líð eg þetta, en
mér þykir það engi vanvyrða; því eg veit,
á hvørn eg treysti, og er þess fullviss, að
hann er megnugur að varðveita það, sem mér
er á hendur falið, til ens ákveðna dags.

13. Hafðú støðuglega þér fyrir augum fyr-
irmynd þeirra heilsusømu lærdóma, sem þú af
mér hefir numið, með trú og elsku, sem er í
Jesú Kristi. 14. Varðveittu það hið góða,
sem þér er á hendur falið, með aðstoð heilags
Anda, sem í oss býr.

15. Þú veitst, að allir úr Asíu hafa yfir-
gefið mig, og þar á meðal þeir Fygelus og
Hermogenes. 16. Drottinn veiti miskun One-
sifóri húsi, því opt hefir hann endurnært mig,
og ekki skammast sín fyrir fjøtur mín; 17.
þvert á móti leitaði hann kostgjæfilega að mér,
þá hann kom til Róms, þar til hann fann
mig. 18. Drottinn láti hann á efsta degi
finna miskun hjá Drottni! þér er alkunnugt
hvørsu hann stundaði mig í Efesus.

## 2. Kapítuli.

Páll áminnir Tímóteus til dugs og polgjæðis í hans embætti, því mikil laun sén í vændum; til að setja sig á móti þeim, sem leiða aðra afvega. En þó menn sén í Guðs søfnuði misjafnir, standi Guðs byggíng samt støðug. Varar við æsku brestum, og ónýtum spurníngum; hvetur til hógværðar.

1. Vertú þar fyrir, son minn! sterkur í
náð Jesú Krists; 2. og það, sem þú heyrðir
af mér í margra vitna nærveru, fá það aptur
trúum mønnum, sem hæfir eru að kénna øðr-
um; 3. en poldu íllt, sem góður stríðsmaður
Jesú Krists. 4. Enginn hermaður slær sér í
aðrar sýslanir, svo að hann þókknist þeim sem
tók hann á mála. 5. Ekki heldur fær sá kó-
rónuna, sem gengur í kappleik, nema hann
berjist løglega. 6. Fyrst eptir afstaðna vinnu
á jarðyrkjumaðurinn að njóta ávaxtanna. 7.
Tak eptir því, sem eg segi: því Drottinn
mun géfa þér skilníng í øllu. 8. Minnstu
Jesú Krists, ættniðja Davíðs, sem frá dauð-
um er upprisinn eptir mínum náðar boðskap;
9. vegna hvørs eg líð íllt, jafnvel fjøtur, eins
og illvirki; en Guðs orð verður ekki fjøtrað.
10. Þess vegna umber eg allt sakir enna út-
vøldu, svo að þeir hljóti hjálpræði Jesú Krists,
með eilífri dýrð. 11. Það er sannur lær-
dómur, að ef vér með honum deyum, þá mun-

---

V. 7. Róm. 8, 15. 16. V. 8. Róm. 1, 16. V. 9. 1 Tess. 4, 7. Efes. 1, 4. Efes. 2, 8. Róm. 6, 23. Tít. 3, 5. Róm. 16, 25. V. 10. Kól. 1, 26. Hebr. 2, 14. 15. 1 Kor. 15, 26. V. 11. Gal. 1, 15. 16. 2, 7. 8. Post. gb. 9, 15. V. 12. þ. e. það lærdóms- og prédikara embættið. Kap. 2, 9. V. 23. 1 Tím. 1, 14. V. 14. sbr. v. 12 og 1 Tím. 6, 20. þ. e. þá upplýsíngu og það heilaga hugarfar, sem Guðs andi innrætir. 1 Kor. 3, 16. V. 18. Matt. 5, 7. V. 2. Kap. 1, 13. V. 5. 1 Kor. 9, 25. 26. 2 Tím. 4, 7. 8. V. 9. hans útbreiðsla hindrast ekki fyrir það. Kap. 1, 12. V. 10. sbr. Róm. 6, 23. V. 11. Róm. 6, 5. 8, 17. 2 Kor. 4, 10.

um og med honum lifa; 12. Ef vér þolum stöduglega, þá munum vér og med honum ríkja; ef vér afneitum honum, mun hann og afneita oss; 13. Ef vér verdum ótrúir, þá verdur hann samt trúr; sjálfum sér getur hann ekki afneitad.

14. Áminn þú um þetta, og vitna fyrir augliti Drottins, ad þeir ekki gési sig í orda þrætur, sem til einkis gagna, en eru til afvegaleidslu þeim, sem áheyrsla verda. 15. Legg kapp á ad audsýna þig Gudi vandadann verkamann, er ekki þarf ad skammast sín og rétt fer med sannleiksins lærdóm. 16. En fordast vanheilagt hégómatal; því slíkir ana lengra og lengra fram í gudleysi, 17. og lærdómur þeirra etur um sig, sem helbruni. Í slíkra tølu er Hymeneus og Filetus, 18. sem fráviknir eru sannleikanum, segja upprisuna þegar skéna, og hafa umsnúid trú sumra. 19. En Guds bygging stendur støðug, og hefir þessa yfirskript: „Drottinn þekkir sína" og „hvørr, sem nefnir Drottins nafn, haldi sér frá ránglæti." 20. Í stóru húsi eru ekki einúngis kér af gulli og silfri, heldur og af tré og leir, sum vegleg, sum óvegleg. 21. Þar fyrir mun hvørr, sem heldur sér hreinum frá þessum, verda veglegt kér, helgad (Drottni), gagnlegt húsbóndanum, tilreidt a) til sérhvørs góds verks. 22. Fordast þú æskunnar girndir; en kappkosta réttvísi, trú, kjærleika, frid vid alla þá, sem ákalla Drottinn med hreinu hjarta. 23. Fordastú heimskulegar og óskynsamar spurníngar, vitandi, ad þær leida af sér þráttanir; 24. en Drottins þjóni sómir ekki ad deila, heldur vera blídur vid alla, laginn ad kénna, þolugur vid áreitíngar, 25. sá ed med blídlyndi leidrétti mótstødumenn, ef ské kynni, ad Gud gjæfi þeim sinnaskipti, svo þeir komist til þekkíngar á sannleikanum, 26. og endurvitkist, lausir vid djøfulsins snøru, í hvørri þeir hafa af honum flæktir verid til ad gjøra hans vilja.

## 3. Kapituli.

Postulinn segir fyrir hættulegar tídir. Hrósar Tímóteusi. Áminnir um ad taka sér vara fyrir svikurum, en halda sér støduglega vid Guds ord.

1. Því þad skaltú vita, ad á sídustu døgum munu verda hættulegar tídir; 2. því þá munu menn verda sérgódir, fégjarnir, rausamir, þóttafullir, lastmálir, foreldrum óhlýdugir, óþakklátir, vanhelgir, 3. kjærleikslausir, óhaldinordir, bakmálugir, bindindislausir, grimmir, hatandi dygdir, 4. svikarar, framhleypnir, hrokafullir, elskandi meira munadarlífid enn Gud; 5. hafandi á sér yfirbragd gudhrædslunnar, en afneita hennar krapti; fordastú þvílíka. 6. Á medal þessara eru þeir, sem smeygja sér inní hús, og véla kvennsniptir, sem eru syndum hladnar og leidast af margh//áttudum girndum, 7. eru alltaf ad læra, en komast aldrei til þekkíngar á sannleikanum. 8. Eins og þeir Jannes og Jambres stódu á móti Mósi, þannig standa þessir á móti sannleikanum; eru menn hugspilltir og rækir hvad trúna snertir. 9. En þeim mun ekki mikid verda ágengt, því fíflska þeirra mun verda hvørjum manni augljós, eins og hinna vard.

10. En þú hefir breytt eptir mér í lærdómi, hegdun, ásetníngi, trú, lánglundar-gédi,

V. 12. Opinb. 6. 3, 21. Matt. 10, 33. 24, 13. V. 16. nefnilega: þeir, sem fara med þvætting. V. 19. Sálm 1, 6. Jóh. 10, 14. 27. sbr. Matt. 7, 21–23. Lúk. 13, 25. 27. V. 20. Allir, sem medkénna sig til Krists, eru ekki eins gódir, sbr. Matt. 13, 24. 47. 48. 1 Kor. 11, 19. V. 21. a. Lætur sig ekki saurga af þeirra óhreinu kéra saurindum. Kap. 3, 17. V. 26. 1 Tím. 6, 9. V. 1. sbr. 2 Tess. 2, 3—12. V. 4. af þeirra speki. V. 5. Matt. 7, 5. sl. 15, 7. 8. Tít. 1, 16. V. 6. Tít. 1, 11. V. 8. 2 Mós. 6. 7, 11. 1 Tím. 6, 5. Tít. 1, 16.

kjærleika, þolgjædi, 11. í ofsóknum og þján-
íngum, slíkum sem eg vard ad sæta í Antíokíu,
Ikoniu, Lystra, hvørjar ofsóknir eg stódst, og
Drottinn frelsadi mig úr þeim øllum. 12. Enda
munu allir verda ofsóktir, þeir er lifa vilja
gudrækilega eptir Jesú Krists reglu. 13. En
vondir menn og svikarar munu vaxa í vondsk-
unni; villa adra og villast sjálfir. 14. En
þú haldt støduglega vid þad, sem þú hefir
numid og ert sannfærdur um, þared þú veitst,
af hvørjum þú hefir numid þad, 15. og þared
þér er frá barnæsku kunnug heiløg Ritníng, sem
gétur uppfrædt þig til sáluhjálpar, (sem fæst) med
trúnni á Jesú Kristi. 16. Øll Ritníng er af
Gudi innblásin, og nytsøm til lærdóms, til
sannfæríngar gégn mótmælum, til leidréttíng-
ar, til mentunar í rádvendni, 17. svo Guds
madur sé algjørr og til alls góds verks hæfilegur.

## 4. Kapítuli.

Postulinn áminnir Tímóteus til trúskapar í hans embætti. Fyrisegir sinn dauda. Bidur Tímóteus koma til sín, kvartar yfir nokkrum, en huggar sig vid Guds adstod. Heilsanir.

1. Eg særi þig vid Gud og vid Jesúm
Krist, sem dæma mun lifendur og dauda, þá
hann opinberast í ríki sínu, 2. ad þú prédikir
lærdóminn, og haldir áfram med þad í tíma
og ótíma; sannfær, ávíta, áminn med ítrasta
þolgjædi og lærdómi. 3. Því sú tíd mun
koma, ad menn munu ekki þola þann heilsu-
sama lærdóm, heldur safna sér kénnendum eptir
egin girndum, eptir því, sem eyrun klæja; 4. þeir
munu snúa eyrum sínum burt frá sannleikan-
um, og snúa sér ad hégyljum. 5. En vert
þú árvakur í øllu, þol íllt, gjæt prédikara
embættisins, og gjør þjónustunni fullnustu.

6. Nú þegar á eg ad fórnfærast, og minn lausn-
artími er fyrir høndum. 7. Eg hefi baríst gód-
ri baráttu, hlaupid fullkomnad, trúnni haldid.
8. Ad sídustu er handa mér afsídis løgd kóróna
réttlætisins, hvørja Drottinn, sá hinn réttláti
Dómari, mun géfa mér á þeim (ákvedna) degi,
en ekki einúngis mér, heldur og øllum, sem
lengir eptir hans tilkomu.

9. Kappkosta ad koma brádum til mín; 10.
því Demas hefir yfirgéfid mig, af því hann
elskadi meir þenna heim, og er farinn til Tessa-
loniku, Kreskes er farinn til Galatsíu, og Tít-
us til Dalmatsíu. 11. Lúkas er einn hjá mér.
Taktu til þín Markús og lát hann fylgjast med
þér, því hann er nytsamur mér til þjónustu;
12. Tykikus hefi eg sendt til Efesus. 13. Þeg-
ar þú kémur, þá færdu mér yfirhøfnina, sem
eg skildi eptir í Tróas hjá Karpusi, og bæk-
urnar, einkanlega skinnbækurnar. 14. Alexand-
er, járnsmidurinn, hefir gjørt mér margt íllt;
Drottinn gjaldi honum eptir hans tilverknadi.
15. Taktú þér líka vara fyrir honum, því ad
hann hefir stórum stadid í móti vorum ordum.
16. Í minni fyrstu málsvørn stód enginn med
mér, heldur yfirgáfu mig allir; ó ad þeim verdi
þad ekki tilreiknad. 17. En Drottinn stód med
mér, og veitti mér krapt til ad frammfylgja
kénníngunni, svo allir heidíngjar skyldu hana
heyra. Og eg vard frelsadur úr ljónsins gini,

V. 11. Post. g. b. 13, 50. 14, 1. 5. 6. 19. V. 12. Matt. 16, 24. Jóh. 17, 14. Post. g. b. 14, 22. 1 Tess. 3, 3. V. 1. 2 Tess. 2, 8. Matt. 25, 31. Jóh. 5, 27. V. 2. Þ. e. hvørt þér er þad haganlegt eda ekki og hvørt þad likar tilheyrendum eda ekki. sjá v. 3. V. 3. Mikk. 2, 11. sbr. Post. gb. 17, 21. V. 4. 2 Tess. 2, 10. 11. V. 6. Sbr. Fil. 1, 23. 2 Pét. 1, 14. V. 7. Fil. 3, 14. Post. gb. 20, 24. 1 Tim. 6, 12. Jak. 1, 12. V. 10. Kól. 4, 14. V. 11. Post. g. b. 15, 37. Kól. 4, 10. Filem. v. 11. V. 12. Efes. 6, 21. Post. g. b. 20, 4. V. 14. 1 Tim. 1, 20.

18. og Drottinn mun frelsa mig frá øllu illu, og hjálpa mér til síns himneska ríkis. Honum sé dýrd frá eilífd til eilífdar, Amen!

19. Heilsadu Prisku og Akvílasi og Onesifóri húsi. 20. Erastus vard eptir í Korintuborg, en Trófímus skildi eg eptir sjúkan í Míletus. 21. Kappkosta ad koma, ádur vetrar. Þér heilsa Evbúlus og Púdes, Línus, Kládía og allir brædurnir. 22. Drottinn Jesús Kristur sé med þínum anda! Náð sé med ydur, Amen!

# S. Páls Pistill til Títusar.

## 1. Kapítuli.

*Kvedja. Hvílíkur sá egi ad vera, sem Títus setur til Kénnara á Krít; Páll lýsir Krítar mønnum, og skipar ad ávíta þá.*

1. Páll, Guds þjón, Postuli Jesú Krists, settur vegna trúar Guds útvaldra og sannleikans þekkíngar, gudrækni til eflíngar, 2. og til vonar á eilífu lífi, er hinn sannordi Gud hafdi heitid frá eilífd, 3. en gjørdi á sínum tíma þetta sitt heit kunnugt, med þeirri bodun, er mér er á hendur falin eptir Guds vors Frelsara tilskipun, 4. óskar Títusi, mínum sannkølludum syni eptir beggja sameginlegri trú, nádar, miskunar og fridar af Gudi Fødur, og Drottni Jesú Kristi, vorum Frelsara.

5. Þess vegna skildi eg þig eptir í Krít, til þess þú færdir í lag þad, sem á brast, og tilsettir Øldúnga í sérhvørri borg, eins og eg skipadi þér: 6. þann er væri ólastanlegur, einnar konu eginmadur, sem ætti trúud børn, er hvørki hefdu illt ord á sér fyrir óterlegt líferni, né væru óhlýdin. 7. Því Biskup á ad vera ólastanlegur, svo sem Guds rádsmadur, enginn sjálfbyrgíngur; ekki reidigjarn, ekki drykkjumadur, egi ofstopasamur, né svívirdilegs ávinníngs girugur; 8. heldur géstrisinn, gott elskandi, rádsvinnur, réttvís, heilagur, bindindissamur, 9. sem heldur fast vid þann trúverduga lærdóm, eins og hann hefir kénndur verid, svo ad hann bædi sé fær um ad fræda í þeim heilsusama lærdómi, og ad hrekja þá, sem móti mæla. 10. Því margir eru þverbrotnir, fara med þvættíng og leida adra í villu; allra helst hinir umskornu; 11. þá ber honum ad nidurþagga; því þeir umsnúa heilum heimilum med því þeir kénna þad, sem ósæmilegt er, fyrir svívirdilegs ávinníngs sakir. 12. Eitt af þeirra egin skáldum segir um þá: Krítar menn eru sífeldir lygarar, ill dýr og letimagar. Þessi vitnisburdur er sannur. 13. Avíta þú þá þess vegna hardlega, svo þeir séu heilhuga í trúnni, 14. og géfi ekki gaum

---

V. 18. Matt. 6, 13. V. 19. Post. g. b. 18, 2. Kap. 1, 16. V. 20. Post. g. b. 19, 22. Post. g. b. 20, 4. V. 22. Tit. 3, 15. V. 2. 4 Mós. b. 23, 19. 2 Tím. 12, 3. Róm. 1, 2. V. 3. Efes. 3, 9. Kól. 1, 26. V. 4. 1 Tím. 1, 2. sbr. vid Fil. 2, 20. 22. V. 5. sbr. Post. g. b. 14, 13. V. 6. 1 Tím. 3, 2. 4. sbr. vid 5, 9. V. 7. 1 Kor. 4, 1. samanb. Matt. 24, 45. 1 Pét. 5, 2. 3 Mós. b. 10, 9. Efes. 5. 18. V. 8. 1 Tím. 3, 2. V. 10. Þad er: Gydingar; sjá t. d. Post. g. b. 15, 1. V. 11. sbr. 2 Tím. 3, 6. 1 Tím. 6, 5. V. 14. 1 Tím. 1, 4. 4, 7. Esa. 29, 13. Kól. 2, 14. 16.

ad bábiljum Gydínga og setníngum þeirra, sem fráhverfir eru sannleikanum. 15. Hreinum er ad sönnu allt hreint; en þeim, sem saurgadir eru og vantrúadir, er ekkért hreint; þeirra hugarfar og samvitska er saurgud. 16 Þeir vidurkénna, ad þeir þekki Gud, en neita því med verkunum, þeir eru vidurstyggilegir, þverúdarfullir og til hvörs góds verks óhæfir.

## 2. Kapítuli.

Postulinn ávísar Títusi, um hvad hann skuli áminna hvorn sérílagi; hvílíkur vera sjálfur; talar um tilgang sendíngar Krists í heiminn.

1. En kénn þú þad, sem enum heilsusamlega lærdómi sæmir: 2. þeim øldrudu, ad þeir séu gjætnir, heidvirdir, rádsettir, heilhuga í trúnni, kjærleikanum og þolinmædinni; 3. sömuleidis enum øldrudu könum, ad þær í háttalagi séu eins og heiløgum sómir, ekki bakmálugar, né sólgnar í ofdrykkju, heldur gott kénnandi; 4. svo ad þær ladi enar ýngri til ad elska sína ektamenn og børn, 5. ad vera sidlátar, skírlífar, kyrrar vid heimili sín, gódar bændum sínum, undirgéfnar, svo Guds ord verdi ekki fyrir lasti. 6. Sømuleidis áminn þú ena ýngri, ad þeir séu hóflamir. 7. Sýn sjálfan þig hvervetna, sem fyrirmynd gódra verka; kénníngin sé óspjøllud og virdugleg, 8. rædan heilsusamleg og ólastandi, svo ad mótstødumadurinn fyrirverdi sig, þá hann ekkért íllt gétur um oss sagt. 9. Áminn þrælana, ad þeir séu húsbændum sínum undirgéfnir og í øllu þókknanlegir, ekki svørulir, 10. ekki sérdrægnir, heldur audsýni algjørda trúmensku, svo þeir prýdi lærdóm Guds vors Frelsara í øllum greinum. 11. Því Guds sáluhjálplega nád er kunn ordin øllum mønnum, 12. er frædir oss, ad vér afneita skulum ógudlegleika og veraldlegum girndum, en lifa sidsamlega, réttvíslega og gudrækilega í þessum heimi, 13. bídandi þeirrar sælu, sem er í vændum, og dýrdlegrar opinberunar hins mikla Guds og vors Frelsara Jesú Krists, 14. sem hefir útgéfid sig fyrir oss, svo ad hann endurleysti oss frá allskonar óréttlæti, og hreinsadi sér sjálfum fólk til eignar, þad er kostgjæfid væri til gódra verka. 15. Kénn þú þetta, áminn og ávíta med allri alvørugéfni; lát engann fyrirlíta þig.

## 3. Kapítuli.

Títus á ad áminna um hlýdni vid yfirvold og til fleiri dygda. Ad fordast fánýtar spurníngar og Þráttanir. Nidurlag Pistilsins.

1. Áminn þá, ad þeir séu høfdíngjum og yfirvøldum undirgéfnir, sýni þeim hlýdni, séu reidubúnir til alls þess, sem gott er, 2. íllmæli engum, séu ódeilugjarnir, vægir til vid adra, sýni allskonar hógværd vid alla menn; 3. því vér vorum og svo fordum óskynsamir, óhlýdnir, gengum villir vega, þjónudum girndum og margslags munadarlífi, lifdum í vondsku og øfund, vorum haturs verdir og høtudum

V. 15. þad er: sá, sem hefir dygdugt hugarfar, hann verdur ekki Gudi misþókknanlegur fyrir þad, hvad hann etur eda drekkur. Matt. 15, 11. Lúk. 11, 39. 40. 1 Kor. 6, 12. sbr. og Róm. 14, 14. 15. 20. 21. 23. en sá, sem hefir vondt hugarfar, er ætíd Gudi misþókknanlegur. þad er: af medvitund vondrar breytni. V. 16. 2 Tím. 3, 5. 8. V. 3. 1 Tím. 2, 9. V. 5. Efes. 5, 22. V. 7. sbr. 1 Pét. 5, 2. 3 V. 9. sbr. 1 Tím. 6, 1. 2. 1 Pét 2, 18. V. 11. 1 Tím. 2, 4. V. 12. sbr. Efes. 1, 4. 5, 27. Kól. 1, 22. V. 13. 1 Kor. 1, 7. Fil. 3, 20. 1 Tess. 1, 10. sbr. Matt. 16, 27. V. 14. Matt. 20, 28. Gal. 5, 4. 2, 20. 2 Mós. b. 19. 5. 5 Mós. b. 4, 20. 2 Kor. 5, 15. V. 1. sbr. Róm. 13, 1. 1 Pét. 2, 13. 14. V. 3. Kor. 6, 11. Efes. 2, 1. 3. sbr. 4, 17. 18. 1 Pét. 4, 3.

hvørr annan. 4. En þegar gjæðska Guðs
vors Frelsara og elska hans til mannanna,
auglýsti sig, 5. þá gjørði hann oss hólpna,
ekki vegna réttlætandi verka, sem vér hefðum
gjørt, heldur frelsaði hann oss af náð sinni
með endurfæðíngar lauginni og endurnýúngu
heilags Anda, 6. hvørjum hann ríkuglega
úthellti yfir oss fyrir Jesúm Krist vorn Frelsara,
7. svo að vér réttlættir fyrir hans náð, yrð-
um hluttakandi hins eptirvænta eilífa lífs. 8.
Þetta er áreiðanlegur lærdómur; og þetta vil
eg að þú staðfestir, svo að þeir, sem hafa trú
sett til Guðs, láti sér umhugað að kappkosta
góð verk. Þetta er mønnum gott og nytsam-
legt. 9. En fávísleg spursmál og ættartølur,
deilur og þrætur út af løgmálinu skaltú forð-
ast, því þær eru óþarfar og hégómlegar. 10.
Flokkaðráttasaman mann skaltu forðast, eptir
það að þú einusinni eða tvisvar hefir áminnt
hann; 11. með því þú veitst að þvílíkur er
fráснúinn, og gengur svo afvega, að hann er
sjálfdæmdur. 12. Þegar eg sendi Artemas
eða Tykkikus til þín, þá kosta kapps um að
koma til mín í Nikópólis, því þar hefi eg á-
sett mér að hafa vetrar-vist. 13. Lát þér
annt um að veita Senusi løgvitríngi og Ap-
polló góðann fararbeina svo að þá ekkért bresti.
14. Vorir ega og að læra að kappkosta góð-
gjørðir til að bæta úr nauðþurftum annara,
svo að þeir séu ekki ávaxtarlausir. 15. Allir,
sem hjá mér eru, heilsa þér. Heilsa þú øllum trú-
uðum, sem elska oss. Náð sé með yður øllum!

# S. Páls Pistill til Filemons.

## 1. Kapítuli.

Páll óskar Filemoni og fleirum góðs; hrósar File-
moni; biður hann taka í sátt þræl hans, One-
simus, er frá honum hafði strokið, en Páll síðan
kristnað. Niðurlag Pistilsins.

1. Páll, bandíngi Jesú Krists, og Tímó-
teus bróðir, kveðjum vorn ástfólgna samþjón Fili-
mon vorn, 2. vora kjæru Appíu og Arkíppus vorn
stríðsfélaga og allann søfnuðinn í þínu húsi:
3. Náð og friður sé með yður af Guði
vorum Føður og Drottni Jesú Kristi.
4. Guði mínum gjøri eg þakkir, í hvørt
sinn sem eg minnist þín í mínum bænum, 5.
þareð eg heyri hvílíka elsku og trú þú hefir til
Drottins Jesú og til allra heilagra; 6. (og
óska eg), að hlutteknίng í trúrækni þinni, ásamt
með viðurkénníngu alls hins góða, sem oss
hefir hlotnast, auðsýni sig krøptuga fyrir Jes-
úm Krist. 7. Því vér høfum mikla gleði og
huggun af kjærleika þínum, þareð þú, bróð-
ir! hefir endurnært hjørtu hinna heiløgu.
8. Þar fyrir, þó eg, sem Krists umboðs-
maður, géti með mikilli djørfúng, boðið þér
það, sem þér sómir að gjøra, 9. þá vil eg

V. 4. Kap. 2, 11. V. 5. Róm. 3, 24. Efes. 2. 4. fl. þ. e. skírninni. sbr. Efes. 5, 26. V. 6. Róm. 5, 5. úthella yfir, þ. e. yfirgnæfanlega veita eða útbúa með. V. 7. Róm. 3, 24. V. 12. Efes. 6, 21. 22. V. 13. Post. g b. 18, 24—28. sbr. 3 Jóh. v. 6. V. 14. þ. e. þei, sem Páll Postuli og hans Lærisveinar høfðu kristnað á eyunni Krít. nefnil. í góðum verkum.
V. 2. sbr. Róm. 16, 5. V. 5. þ. e. kristinna.

heldur bidja þig í vinsemd; þú veitst, hvílíkur
eg er, gamal-mennid Páll, sem nú þar ad
auk er í fjøtrum sakir Jesú Krists. 10. Eg
bid þig fyrir son minn Onesímus, hvørn eg
alid hefi í mínum fjøtrum. 11. Hann var
þér ádur óþarfur, nú er hann bædi þér og mér
gagnlegur. Þenna sendi eg; 12. taktú hon-
um vel; hann er hjartad í mér. 13. Eg
girntist ad sønnu halda honum hjá mér, svo
ad hann í þinn stad þjónadi mér í fjøtrum
mínum, sem eg ber sakir nádar bodskapsins;
14. en án þíns vilja vilda eg ekki gjøra þad, svo
ad þessi velgjørníngur þinn kjæmi ekki af naud-
úng, heldur af sjálfvilja. 15. Máské hann
þar fyrir um stundarsakir hafi skilist vid þig,
ad þú sídan skyldir ávalt halda honum, 16.
ekki framar eins og þræli, heldur ánaudugum
betri, sem elskulegum bródur, mjøg kjærum
mér, en því framar þér, bædi vegna líkamlegr-
ar þjónustu og í Drottins erindum. 17. Þar
fyrir ef þú álítur mig stallbródur þinn, þá taktú
á móti honum, eins og eg væri þad sjálfur.
18. En ef hann hefir gjørt þér órétt í nokkuru,
ellegar er þér skuldugur, þá tilreikna mér þad.
19. Eg Páll skrifa þetta med egin hendi! „eg
skal gjalda"; svo eg ekki nefni þad, ad þú ert
mér jafnvel skyldugur um sjálfann þig. 20.
Já, lát mig njóta þess, bródir! ad þú ert ord-
inn Drottins; endurnær mitt hjarta fyrir Krists
skuld. 21. Fullviss um þína hlýdni skrifa eg
þetta, því eg veit, ad þú munir gjøra meira,
en eg hefi mælst til.

22. En hafdu líka til reidu gésta herbergi
handa mér, því eg vona ad eg vegna ydar
bæna muni verda géfinn a) ydur. 23. Þér
heilsar Epafras, sem er bandíngi, eins og eg,
sakir Jesú Krists; 24. sømuleidis Markús,
Aristarkus, Demas og Lúkas, mínir samþjón-
ar. 25. Nádin Drottins vors Jesú Krists sé
med ydar anda.

---

# Pistillinn til hinna Hebresku.

## 1. Kapítuli.

*Í fyrndinni lét Gud Spámenn sína kunngjøra fedrunum sinn vilja, en fyrir skémmstu lét hann Son sinn, sem Englunum er ædri, gjøra hid sama.*

1. Sá Gud, er fordum taladi til fedranna
í fleiri skipti, og med mørgu móti fyrir munn
sinna Spámanna, hann hefir á þessum sídústu
tímum til vor talad fyrir Soninn, 2. hvørn
hann setti erfíngja allra hluta, fyrir hvørn
hann og svo heiminn skóp, 3. hvørr, af því
hann er geisli hans dýrdar og eptirmind hans
veru, sem øllu stjórnar med sínu krøptuga ordi,
þá settist hann til hægri hlidar gudlegri hátign
á hædum, eptir þad hann med dauda sín-
um hafdi hreinsad oss frá syndunum, 4. og er
ordinn Englunum þeim mun hærri, sem hann
hefir þeim háleitari tign ødlast. 5. Því
til hvørs af Englunum hefir Gud nokkurntíma

V. 10. 1 Kor. 4, 15. Gal. 4, 19. V. 22. a. nefnil. laus úr fjøtrunum. V. 1. 4 Mós. 6. 12, 6. 8. Lúk. 1, 70. Gal. 4, 4. V. 2. Efes. 1, 10. Jóh. 1, 3. V. 3. Jóh. 14, 9. 2 Kor. 4, 4. Kól. 1. 15. 16. Hebr. 8, 1. Kap. 9, 14. 26. V. 4. Fil. 2, 9. 10. V. 5. Sálm. 2, 7. 2 Sam. 7, 14.

sagt: þú ert minn Sonur í dag gat eg þig? og enn aptur segir hann: eg vil vera hans Fadir og hann skal vera minn Sonur; 6. en þá hann þar á mót bodar komu síns frumgétna Sonar í heiminn, kvedur hann svo ad ordi: allir Englar Guds skulu tilbidja hann. 7. En um Englana verdur svo ad ordi kvedid: sína Engla brúkar hann, sem vinda og sína þjóna, sem eldíngar. 8. En um Soninn þar á mót: þitt hásæti, ó Gud! varir um aldur og æfi, þinn veldisssproti er veldisssprota réttvísinnar. 9. Þú elskar réttindin en hatar rángindin, þess vegna hefir Gud, þinn Gud smurt þig med gledinnar vidsmjöri framyfir þína jafníngja. 10. Og á ødrum stad stendur: Drottinn! í øndverdu grundvalladir þú jørdina og himnarnir eru þín handaverk. 11. Þeir munu undir lok lída, en þú varir vid, allir munu þeir fyrnast sem annad fat, 12. og líka sem møttul muntú þá samanvefja, þeir munu umbreytast, en þú ert hinn sami og þín ár munu ekki þrjóta. 13. En til hvørs af Englunum hefir Gud nokkurntíma sagt: sit þú mér til hægri handar, þángad til eg gjøri óvini þína ad þinni fóta-skør. 14. Eru þeir ekki allir þjónustubundnir andar, sem sendir eru í þeirra þarfir, er ødlast skulu sáluhjálpina?

## 2. Kapítuli.

Áminníng ad halda vid lærdóminn vegna Krists hátignar og forlíkunar.

1. Þess vegna ber oss því framar ad halda huganum stødugum vid þann lærdóm, er vér høfum heyrt, ad ekki villumst vér frá honum. 2. Því hafi sá lærdómur, sem kunngjørdur var fyrir Englanna milligaungu stødugur stadid og øll yfirtrodsla og óhlýdni gégn honum fengid sín makleg málagjøld, 3. hvørnig skyldum vér þá géta sloppid hjá hegníngu, ef vér vanrækjum svo heilsusamann lærdóm, hvørn Drottinn vor sjálfur hóf fyrstur ad kénna og sem sídan er stadfestur til vor kominn frá þeim, er hann heyrdu. 4. Þar Gud sjálfur styrkti þeirra vitnisburd med táknum, undrum, margskonar kraptaverkum og heilags Anda útbýtíngu eptir sinni velþókknun. 5. Því ekki gaf hann Englunum vald yfir þeim komanda heimi a), um hvørn vér hér tølum. 6. En svo hefir viss madur komist ad ordi einhvørsstadar: hvørsu veglegur er madurinn ad þú skulir minnast hans, eda mannsins sonur ad þú skulir líta til hans. 7. Um stundarsakir gjørdir þú hann Englunum óædri, med vegsemd og heidri krýndir þú hann og settir hann yfir verk þinna handa. 8. Alla hluti lagdir þú undir hans fætur; en fyrst hann gjørdi honum alla hluti undirgéfna, þá hefir hann ekkért þad eptirskilid, er ekki sé undir hann lagt. En vér sjáum þó enn þá ekki ad allir hlutir séu undir hann géfnir. 9. En þar á móti sjáum vér, ad Jesús, sem um stundarsakir var gjørdur Englunum óædri, er, vegna þess hann daudann þoldi, med dýrd og vegsemd kórónadur, svo ad hann af Guds nád lidi daudann fyrir alla.

---

V. 6. Róm. 8, 29. Kól. 1, 15. 17. Sálm. 97, 7. V. 7. Sálm. 104, 4. V. 8. Sálm. 45, 7. 8. V. 9. Post. g. b. 10, 38. V. 10. Sálm. 102, 26. Sálm. 8, 4. V. 11. Sálm. 102, 27. Esa. 51, 6. Lúk. 21, 33. V 12. Sálm. 102. 27. 28. V. 13. Sálm. 110, 1. Efes. 1, 20. Hebr. 10, 12. V. 14. Sálm. 34. 8. V. 2. Mósis løgmál. Post. g. b. 7, 53. Gal. 3, 19. 5 Mós. b. 27, 26. V 3. Hebr. 10, 29. 12, 25 Mark. 1, 14. 15. V. 4. Mark. 16, 20. Post. g. b. 2, 22. 14, 3. 2 Kor. 12, 11. V. 5. a. Þ. e. Messíasar ríki. V. 6. Sálm. 8, 5 fl. V. 7. Efes. 1, 21. V. 8. Matt. 28, 18. Kap. 10, 13. V. 9. Fil. 2, 8. 9. Post. gb. 2, 33. 1 Jóh. 2, 2.

10. Því það hæfdi þeim, fyrir hvørn og af
hvørjum allt er gjørt, þeim, er leidir marga
sonu til dýrdar, dýrdlegann að gjøra høfund
þeirra velferdar eptir afstadnar lídanir. 11.
Því sá, sem helgar og þeir, sem helgadir
verda, eru allir børn eins fødurs, þess vegna
fyrirverdur hann sig ekki ad kalla þá brædur
þar hann segir: 12. eg vil kunngjøra þitt nafn
brædrum mínum, midt í søfnudinum vil eg syng-
ja þér lof. 13. Og enn annarstadar: á hann
vil eg setja mitt traust og þar á eptir: sjá
hér em eg og þau børn, er Gud gaf mér.
14. En af því børnin hafa hold og blód, þá
er hann einnig ordinn þess hluttakandi, svo
ad hann med (sínum) dauda gjæti svipt krapti
daudans yfirrádanda, það er: djøfulinn, og
frelsad þá, 15. sem af ótta fyrir daudanum
lifdu allann sinn aldur undir ánaudar oki. 16.
Því vegna þess hann enganrveginn ad sér tók
Englana, heldur Abrahams nidja, 17. þá hlaut
hann í øllu ad gjørast brædrum sínum líkur,
svo hann verda kynni miskunsamur og trúlynd-
ur Høfudprestur í sínu embætti fyrir Gudi, þá
hann fridþægdi fyrir fólksins syndir. 18. Því
vegna þess hann hefir sjálfur mátt kénna á
freistíngum, þá gétur hann hjálpad þeim, sem
freistadir verda.

## 3. Kapítuli.

Hlýdni vid Krist, sem er ædri enn Móses. Advar-
an móti þvermódsku.

1. Þess vegna, þér, heiløgu brædur! sem
hluttakandi erud ordnir þeirrar himnesku køll-
unar, géfid gjætur ad Jesú Kristi, Postula og
ædsta Presti vorrar játníngar, 2. sem trúr var
þeim, er hann þar til skipadi, eins og Móses
var trúr í øllu hans húsi a). 3. Þó álítst
þessi verdugur þeim mun ædri tignar enn Móses,
sem sá, er húsid byggir er ædri enn húsid sjálft.
4. (En sérhvørt hús er gjørt af einhvørjum,
en Gud hefir gjørt allt). 5. Móses var ad
sønnu trúr í øllu hans húsi, svo sem þénari,
í því ad kunngjøra þad, sem fyrir hann var
lagt. 6. En Kristur er þar á móti settur,
sem Sonur yfir hans hús og hans hús er-
um vér, ef ad vér allt til æfiloka høldum
fast vid djørfúng og hrósun vorrar vonar.

7. Þess vegna eins og heilagur Andi seg-
ir: í dag, medan þér heyrid hans raust, þá
forherdid ekki ydar hjørtu, 8. eins og fordum í
upphlaupinu á freistínga-deginum í eydimørk-
inni, 9. hvar fedur ydar freistudu mín og
reyndu mig, þótt þeir í 40 ár hefdu séd verk
þau, er eg gjørdi. 10. Þessvegna grambist
eg þjód þessari og sagdi: óaflátanlega villast

---

V. 10. Jóh. 1, 3. Róm. 11, 36. Lúk. 24, 26. Post. gb. 3, 15. Kap. 5, 31. V. 11. Kap. 13, 12. Jóh. 17, 19. Matt. 12, 50. Jóh. 15, 14. 20, 17. V 12. Sálm. 22. 23. 26. V. 13. Sálm. 18, 3. Esa. 8, 18. Jóh. 10, 29. 17, 6. 9. V. 14. Jóh. 1, 14. Esa. 23, 8. Hós. 13, 14. 2 Tím. 1, 10. V. 15. Lúk. 1, 74. Róm. 8, 15. V. 17. Kap. 4, 15. 16. 5, 2. v. 1. V. 1. 1 Pét. 1, 5. Fil. 3, 14. Gal. 4, 4. Kap. 4, 14. 6, 20. V. 2. a. Þ. e. Móses var trúr umsjónar-madur yfir Guds fólki, sem hér kallast hús, samanber v. 6. í þessum Kap. 4 Mós. b. 12, 7. V. 3. Sakk. 6, 13. Matt. 16, 18. V. 4. 2 Kor. 5, 1. 18. Efes. 2, 10. V. 5. v. 2. 5 Mós. b. 18, 15. 18. V. 6. 1 Kor. 3, 16. 6, 19. Efes. 2, 21. 22. Matt. 24, 13. V. 7. Sálm. 95, 7. 8. V. 8. 2 Mós. b. 17, 2. V. 9. 4 Mós. b. 14, 22.

þeir í hjørtum sínum og þekkja ekki mína vegu.
11. Þar fyrir sór eg í bræði minni, ad þeir
aldrei skyldu komast til míns hvíldarstadar.
12. Gjaldid varhuga vid því, brædur! ad
enginn ydar búi yfir vondu vantrúar hjarta,
er vilji falla frá enum lifanda Gudi. 13.
Heldur áminnid hvørr annann hvørs daglega,
svo lengi sagt verdur í dag, ad enginn af yd-
ur forherdist af syndarinnar afvegaleidslu. 14.
Því vér erum ordnir hluttakandi í Kristi ef
vér allt til æfiloka høldum fast vid þann fyrsta
trúarbragda grundvøll. 15. Fyrst sagt er: í
dag, ef þér heyrid hans raust, þá forherdid
ekki ydar hjørtu eins og hinir gjørdu í upp-
hlaupinu. 16. Hvørjir voru þad þá, sem reittu
hann til reidi, þó þeir heyrdu hana? voru þad
ekki allir þeir, sem Móses leiddi útaf Egypta-
landi? 17. og hvørjir voru þad, sem módgudu
hann í 40 ár? voru þad ekki þeir, sem syndg-
udu og féllu í eydimørkinni? 18. Og hvørjir
voru þad, sem hann sór, ad aldrei skyldu ná
inngaungu í hans hvíldarstad, nema þeir van-
trúdu? 19. Svo sjáum vér þá, ad þeir
gátu ekki nád þar inngaungu vegna vantrú-
ar sinnar.

## 4. Kapítuli.

*Framhald. Kristur er vor ypparsti Prestur.*

1. Tøkum oss því vara fyrir ad enginn á
medal vor sýnist ad draga þig apturúr, fyrst
þad fyrirheit ad vér megum inngánga til hans
hvíldarstadar, stendur oss enn þá opid.
2. Því og svo oss, er fyrirheitid gefid eins
og þeim, en þetta fyrirheit kom þeim til engra
nota, hvørjum þad var bodad, vegna þess
þad fyrirhitti enga trú hjá þess heyrendum,
hvørri þad gjæti samþýdst. 3. En vér, sem
trúum, munum inngánga til hans hvíldar ept-
ir hans egin ordum: Eg sór í reidi minni:
þeir skulu ekki inngánga í mína hvíld, jafn-
vel þó verkin væru fullgjørd vid grundvøllun
heimsins. 4. Því einhvørsstadar er svo ad ordi
kvedid um hinn 7da dag: og Gud hvíldist á hin-
um sjøunda degi af øllum sínum verkum. 5. Og
aptur stendur á þessum stad: þeir skulu ekki inn-
gánga til minnar hvíldar. 6. Þar ed nú nokkrir
ega enn þá eptir ad inngánga til hvíldar þess-
arar og þeir, sem hún í fyrstu var heitin, nádu
ekki inn ad gánga fyrir vantrúar sakir, 7. þá hefir
hann ad nýu ákvedid vissann dag, þar hann svo
laungum tíma seinna segir fyrir Davíds munn:
í dag — því svo er ad ordi kvedid — í dag
ef þér heyrid hans rødd, þá forherdid
ekki hjørtu ydar. 8. Ef Jósúa hefdi leidt
þá til hvíldar, þá hefdi (Davíd) ekki talad um
annann dag eptir þann tíma. 9. Þess vegna
hlýtur hvíldin enn þá ad vera Guds fólki ept-
irskilin. 10. Og sá, sem inngengur í hans
hvíld, mun hvílast af sínum verkum, líka sem
þad Gud hvíldist af sínum. 11. Kostum því
kapps ad ná inngaungu í hvíld þessa, ad eng-
inn steypi sjálfum sér, søkum vidlíkrar vantrú-
ar. 12. Því Guds ord er lifandi og krøpt-
ugt og beittara hvørju tvíeggjudu sverdi og
þreyngir sér milli sálar og anda, lidamóta og
mergjar og dæmir þánka og hjartans hug-

---

V. 11. 4 Mós. b. 14, 21—23. þ. e. Kanaans land. V. 13. 1 Tess. 5, 14. V. 14. þad er: Krists velgjørningum. 2 Pét. 1, 4. Opinb. b. 2, 10. 25. V. 15. v. 7. V. 17. 4 Mós. b. 14, 33. fl. 26, 65. V. 18. v. 11. 5 Mós. b. 1, 34. V. 3. Sálm. 95, 11. þad er: hvørjum hvíldin á eptir fylgdi. V. 4. 1 Mós. b. 2, 2. V. 5. 4 Mós b. 14, 29. 5 Mós. b. 1, 34. 35. V. 7. Kap. 3, 7. V. 8. 5 Mós. 31, 7. V. 10. Opinb. b. 14, 13. V. 12. Préd. b. 12, 11. Esa. 40, 2. Jer. 23, 29. 1 Kor. 14, 24. Opinb. b. 1, 16.

renníngar. 13. Og engin sképna gétur falist
fyrir þeim, um hvørn vér hér tølum, allt er
opid og ønduerdt fyrir hans augum.
14. Þar vér høfum þann mikla Høfudprest
Jesúm Guds Són, sem inn er genginn í him=
ininn, þá látum oss halda fast vid játníngu
vora. 15. Því vér høfum ekki þann ypparsta
prest, er ekki kunni ad sampínast vorum veikleika,
heldur þann, sem freistadur er á allann hátt
eins og vér, þó án syndar. 16. Látum oss því
med djørfúng nálgast nádarstólinn, ad vér ødl=
umst miskun og finnum nád til hjálpar oss
nær oss áliggur.

## 5. Kapituli.

Framhald. Kvartan yfir eptirtektaleysi Hebreskra.

1. Sérhvørr ypparsti Prestur, sem útaf
mønnum er valinn, er manna vegna skipadur
til Guds þjónustugjørdar, ad hann framberi
gáfur og fórnir fyrir syndirnar. 2. Og þar
hann er sjálfur breiskleika undirorpinn, þá gét=
ur hann vorkénnt þeim vankunnandi og þeim,
sem villtir fara. 3. Hér fyrir ber honum einn=
ig ad færa fórnir ekki sídur fyrir sínar, heldur
enn fólksins syndir. 4. Ekki tekur nokkurr sér
sjálfur þennann heidur, heldur hlýtur hann ad
vera af Gudi kjørinn eins og Aron einnig
var. 5. Þannig tók og Kristur sér ekki sjálf=
ur þann heidur ad verda ypparsti prestur,
heldur sá, er til hans sagdi: þú ert Sonur
minn, í dag gat eg þig. 6. Sem líka segir
á ødrum stad: þú ert kénnimadur ad eilífu,
eins og Melkisedek, 7. hvørr ed á sínum holds=
vistar døgum med tárum og kveinstøfum fram=
bar bænir og audmjúk andvørp fyrir þann,
sem megnadi ad frelsa hann frá daudanum og
vard bænheyrdur vegna sinnar gudrækni. 8. Og
þótt hann Sonur væri, lærdi hann hlýdni af
því, sem hann leid. 9. Og er eptir sína upp=
hafníngu ordinn øllum þeim, er honum hlýdn=
ast, undirrót til ævarandi farsældar 10. og er af
Gudi sjálfum úthrópadur ypparsti prestur á
líkann hátt og Melkisedek.
11. Hér um høfum vér mikid ad segja, sem
þúngskilid er, af því þér erud svo eptirtekta=
litlir; 12. því þó þér tímans vegna mætt=
ud vera ordnir lærimeistarar, þá hafid þér
þørf ad einhvørr kénni ydur af nýu fyrstu støf=
un Guds lærdóma og hafid þørf á mjólk en
ekki megnri fædu. 13. En hvørr, sem á mjólk
nærist, þekkir ekki fullkominn lærdóm, því hann
er barn. 14. En megna fædan er fyrir þá
fullordnu, sem vegna vana hafa fengid æfd=
ann smekk til ad adgreina gott frá íllu.

## 6. Kapituli.

Postulinn áminnir Hebreska, ad þeir líkist þeim ekki,
sem fallid hafa frá lærdóminum, svo ad þeir fari
ekki á mis vid þad loford, sem Abraham var géfid.

1. Þar fyrir viljum vér sleppa ad útlista
fyrsta grundvøll Krists lærdóms og halda á=
fram til þess, sem fullkomnara er, ad ekki før=
um vér aptur ad leggja grundvøllinn til lær=
dómsins um apturhvarf frá daudum verkum,

V. 13. Sír. 15, 19. 23, 29. Sálm. 34, 16. 17. 133, 13—15. V. 14. Kap. 3, 1. 6, 20. 7, 26. 8, 1. fl. V. 15. Kap. 2, 17. Matt. 4, 1. Lúk. 22, 28. Esa. 53, 9. 2 Kor. 5, 21. 1 Pét. 2, 22. V. 16. Kap. 10, 22. 1 Jóh. 3, 21. Róm. 3, 25. V. 1. 2 Mós. b. 28, 1. fl. Kap. 8, 3. Kap. 10, 6 V. 2. Kap. 2, 18. Kap. 4, 15. V. 3. 3 Mós. b. 9, 7. 16, 6. fl. V. 4. 2 Mós. b. 28, 1. V. 5. Jóh. 8, 54. Sálm. 2, 7. V. 6. Sálm. 110, 4. Hebr. 7, 17. V. 7. Matt. 26, 39. 27, 46. 50. Lúk. 22, 42. 23, 40. Jóh. 12, 27. 17, 1. V. 8. Fil. 2, 8. V. 9. Róm. 1, 5. Kap. 2, 10. V. 10. v. 6. V. 12. Kap. 6, 1. 2. 1 Kor. 3, 2. fl. 1 Pét. 2, 2. V. 13. 1 Kor. 3, 1. 14, 20. V. 1. Kap. 9, 14.

2. um trúna á Gud, um lærdóm skírnarinnar,
handanna uppáleggíngu, upprisu hinna daudu
og þann eilífa dóm. 3. Og þetta viljum
vér þá gjøra, ef Gud lofar. 4. Því þad er
ómøgulegt, ad þeir, sem eitt sinn eru ordnir
upplýstir, og hafa fengid smekk á þeirri himn-
esku gáfu og hluttakandi eru ordnir hins hei-
laga Anda, 5. og hafa smakkad Guds góda ord
og krapt komandi aldar og hafa þó fallid frá,
6. ad þeir muni endurnýast til betrunar, þar
þeir hafa fyrir sitt leiti ad nýu krossfest Guds
Son og haft hann ad spotti. 7. Því jørd
sú, er drekkur þad regn, sem opt fellur yfir
hana og færir þeim hagkvæmann gródur, er
hana yrkja, hún medtekur blessun af Drottni;
8. en hin, sem ber þyrna og þistla, er engu nýt
og finnur bráda formælíngu og verdur um sídir
eldi svidin. 9. En vér vonum annars betra
og heilsusamlegra um ydur, elskanlegir! þótt
vér tølum þannig. 10. Því Gud er ekki ráng-
látur, ad hann gleymi gjørdum ydar og kjær-
leika, er audsýnt hafid honum til dýrdar,
med því ad þér hafid þjónad og þjónid hei-
løgum. 11. Einúngis viljum vér óska: ad
sérhvørr ydar kostgjæfi hid sama allt til æfi-
loka, svo ad ydar von mætti fullkomnast, 12. ad
ekki verdid þér annara eptirbátar, heldur þeirra
eptirbreytendur, sem vegna trúar og bidlundar
ødlast hafa þad fyrirheitna. 13. Því, þá
Gud veitti Abraham fyrirheitid, sór hann vid
sjálfann sig, af því hann hafdi engann ædri
vid ad sverja og sagdi: 14. sannlega vil eg blessa
þig og margfalda. 15. Þannig ødladist hann
þad fyrirheitna af því hann beid þess med bid-
lundargédi. 16. En mennirnir sverja eid vid
þann, sem þeim er ædri og eidurinn gjørir
enda á allri þeirra þrætu og stadfestir sann-
leikann. 17. Þar fyrir styrkti Gud heityrdi
sitt med eidi, þá hann enn yfirgnæfanlegar
vildi sýna erfíngjum fyrirheitisins óraskanleg-
leika sinna ályktana, 18. svo ad vér vegna
tveggja óbrygdulla hluta, søkum hvørra Gud
ómøgulega gat hafa skrøkvad ad oss, skyldum
hafa øruggt traust, sem til hans flýum, til ad
høndla þá sælu von, sem oss er geymd; 19.
hvørja vér høfum líka sem akkeri sálarinnar óbif-
anlega og støduga, 20. sem sér innþreyngir í þad
allrahelgasta, hvört Jesús, vor fyrirrennari, er
inngenginn fyrir oss og ordinn ypparsti prestur
ad eilífu eins og Melkisedek.

## 7. Kapítuli.

Jesús er ypparsti Prestur, fullkomnari enn allir adrir.

1. En Melkisedek þessi, er var Salems Kon-
úngur og kénnimadur Guds hins hæsta, hvørr
ed gékk í veg fyrir Abraham og blessadi hann,
þá hann snéri heimleidis frá drápi Konúng-
anna, 2. og hvørjum Abraham skipti tíundum
af øllu herfángi sínu, hans nafn má fyrst út-
leggjast: Konúngur réttvísinnar og þar
næst Konúngur fridarins, þar hann var
Konúngur í Salem. 3. Hann hafdi hvørki
fødur né módur, eda ættlegg, hvørki lífs upp-
tøk né lífs endir, en líkist í því Syni Guds,
ad hann er kénnimadur ad eilífu. 4. Byrdid

---

V. 3. Post. g. b. 18, 21. Jak. 4, 15. V. 4. Kap. 10, 26. 1 Jóh. 5, 16. 2 Pét. 2, 20. Matt. 12, 31. 45. V. 8. Matt. 21, 19. V. 10. Róm. 14, 31. 2 Kron. b. 15, 7, Ordskv. b. 14, 31. Matt. 10, 42. 25, 40. 1. Kor. 15, 58. V. 11. Kap. 3, 6. 14. Matt. 24, 13. V. 12. v. 15. V. 13. 1 Mós. b. 17, 4. 22, 16. Sálm. 105, 9. Lúk. 1, 73. V. 14. 1 Mós. b. 12, 2. 22, 17. V. 15. Kap. 10, 36. V. 16. 2 Mós. b. 22, 11. V. 17. v. 13. V. 18. Tit. 1, 2. V. 20. Kap. 3, 1. 4, 14. 5, 6. V. 1. 1 Mós. b. 14, 18. V. 2. 1 Mós. b. 14, 20. V. 4. Post gb. 2, 29.

nú fyrir ydur hvílíkur sá megi verid hafa,
hvørjum jafnvel sjálfur forfadirinn Abraham gaf
tíundir af herfángi sínu. 5. Ad vísu hafa þeir
af Leví nidjum, er klerkdóm taka, heimild til
þess ad leggja eptir løgunum, tíundar útsvar
á þjódina, þad er: brædur sína, þótt þeir séu
af Abraham komnir. 6. En hér tók sá tíund=
ir af Abraham, sem ekki var Abrahams ættar
og blessadi þann, er fengid hafdi fyrirheitin.
7. Því verdur þó ekki móti mælt, ad sá, sem
er minniháttar, blessast af þeim, sem meiriátt=
ar er. 8. Hér taka daudlegir menn tíundir,
en þar sá, um hvørn vitnad er, ad hann æ
lifi. 9. Og Leví, hvørs afkomendur plaga
tíundir ad taka, hefir — ad eg komist svo ad
ordi — mátt svara tíund í Abrahams per=
sónu. 10. Því þá Melkisedek mætti Abra=
ham, var hann enn í lendum fødur síns. 11.
Hefdi fullkomnan fengist fyrir þann levítiska
kénnimannsskap (til hvørs fólkid var bundid
med løgum) hvør þørf hefdi þá framar á því
verid, ad nýr kénnimadur skyldi tilsetjast líkur
Melkisedek en ekki Aron. 12. Því vid um=
breytíngu kénnistéttarinnar hlutu løgin og svo
ad umbreytast. 13. En nú er sá, um hvørn
þessi spádómur hljódar, annarar artar, í hvørri
enginn hefir altarinu þjónad. 14. Því þad
er alkunnugt, ad Drottinn vor er fæddur af
Júdæ ætt, fyrir hvørja ætt Móses enga til=
skipun hefir gjørt, vidvíkjandi kénnimanns em=
bættinu. 15. Og enn audsjáanlegra er þetta
á því, ad annar kénnimadur framkémur líkur
Melkisedek, 16. hvørr ekki hefir ødlast embætt=
id eptir tilskipun þess løgmáls, sem gjørir ráð
fyrir daudlegum kénnimønnum, heldur ódaud=
legum ypparsta Presti; 17. því svo verdur ad
ordi kvedid; þú ert kénnimadur ad eilífu, eins
og Melkisedek. 18. Svo er þá hid fyrra løg=
mál aftekid, søkum þess ófullkomlegleika og
vanhlýtar; 19. (því þad megnadi engann full=
kominn ad gjøra) en í þess stad innleidd betri
von, vegna hvørrar vér gétum nálægt oss Gudi.
20. Enn framar ad því leiti, sem Jesús var
med svørnum eidi innsettur, ad því leiti er hann
ordinn medalgángari betri sáttmála. 21. Adrir
urdu kénnimenn eidlaust, 22. en þessi þar á móti
med eidi þess, sem til hans sagdi: Herrann sór
og hann skal ekki ydrast þess, þú ert kénni=
madur ad eilífu eins og Melkisedek. 23. Þeir
yppurstu Prestar voru margir einn eptir ann=
ann, því daudinn kippti þeim burt, 24. en þessi
heldur stødugu kénnimanns embætti af því hann
lifir ad eilífu. 25. Þess vegna gétur hann og
svo ætíd lidsinnt þeim, þar hann æ lifir til þess
ad tala þeirra máli. 26. Þvílíks kénnimanns
høfdum vér þørf, er heilagur væri og saklaus,
óflekkadur, syndurum fráskilinn og ordinn himn=
unum hærri, 27. er ekki þirftu daglega, sem
adrir yppurstu Prestar, ad færa fórnir, fyrst
fyrir sínar egin, þar næst fyrir fólksins synd=
ir, þetta gjørdi hann eitt sinn, þá hann fórn=
færdi sjálfum sér. 28. Løgmálid innsetur þá
til yppurstu Presta, sem hafa mannlegann breisk=
leika, en ord eidsins, sem ýngra er enn
løgmálid, tilsetur Soninn, sem ad eilífu er
fullkominn.

---

V. 5. 4 Mós. b. 18, 21. V. 6. 1 Mós. b. 14, 19. Róm. 4, 13. V. 9. 4 Mós. b. 18, 26. V. 11. v. 18. 19. Gal. 2, 21. V. 14. 1 Mós. b. 49, 10. Rut. 4, 17. fl. Esa. 11, 1. V. 17. Kap. 5, 6. Sálm. 110, 4. V. 18. Gal. 4, 9. Róm. 8, 3. V. 19. Jóh. 1, 17. Post. g. b. 13, 38. 39. Róm. 3, 20. Esa. 2, 18. 3, 12. V. 21. Sálm. 110, 4. V. 25. Kap. 9, 24. Róm. 8, 34. 1 Jóh. 2, 1. V. 26. Kap. 4, 14. 15. 1 Pét. 2, 22. V. 27. 3 Mós. b. 9, 7. 16, 3. 6. fl. Hebr. 9, 12. 26. V. 28. Kap. 5. 1. 2. v. 9. Kap. 2, 10.

## 8. Kapítuli.

*Jesús er ypparsti Prestur á himni og midill þess nýa sáttmála, því sá eldri er afmádur.*

1. Høfud innihald þess, sem sagt hefir ver-
id, er þetta: vér høfum þann ypparsta Prest,
er situr hægrameginn vid hásæti þess almátt-
uga á himnum. 2. Og sem er Prestur helgi-
dómsins og þeirrar sømu tjaldbúdar, hvørja
Gud sjálfur hefir reist, en enginn madur. 3.
Því hvørr ypparsti Prestur er til þess settur
ad frambera gáfur og fórnir, því verdur þessi
og svo ad hafa þad, er hann frambera kunni.
4. Því hefdi hann verid jardneskur Prestur, þá
hefdi hann ekki kunnad Prestur ad vera þar,
sem þar eru adrir Prestar fyrir, sem færa fórn-
ir eptir løgunum; 5. þessir fremja Guds þjónust-
una í því musteri, hvørt ad er eptirmind og
skuggi þess himneska, eins og Mósi var bodid
þá hann skyldi fullgjøra tjaldbúdina: géf gjæt-
ur ad, stendur þar, ad þú gjørir allt eptir
munstri því, sem þér var sýnt á fjallinu. 6.
En nú hefir hann fengid þeim mun ypparleg-
ra kénnimanns embætti, sem sáttmáli sá er ypp-
arlegri, søkum þess hann er grundvalladur á
betri fyrirheitum. 7. Því hefdi sá fyrri sátt-
máli verid óadfinnanlegur, þá hefdi ekki eins
annars vidþurft. 8. En nú ávítar Gud þá
segjandi: sjá! þeir dagar munu koma, segir
Drottinn, þá eg vil semja nýann sáttmála vid
Israels ætt og Júdæ ætt, 9. ekki líkann þeim
sáttmála, er eg gjørdi vid forfedur þeirra á
þeim degi, þá eg tók í hønd þeirra, til þess ad
leida þá út af Egyptalandi, því vegna þess
þeir héldu ekki minn sáttmála, þá yfirgaf eg
þá, segir Drottinn. 10. En sáttmáli sá, er
eg hér eptir mun semja vid Israels fólk, skal
vera á þá leid, segir Drottinn, ad eg mun
inngéfa mitt løgmál í þeirra hugskot og grafa
þad á þeirra hjørtu og eg skal vera þeirra Gud
og þeir skulu vera mitt fólk, 11. og þá mun
ekki hvørr landi og bródir þurfa ad áminna
annann segjandi: þekktu Drottinn, því allir
skulu þekkja mig frá þeim minnsta þeirra á
medal til þess mesta. 12. Því eg mun vera
vægur vid þeirra yfirtrodslu og ekki framar
minnast synda þeirra og bodorda brota. 13.
Med því ad kalla þetta nýann sáttmála, hefir
hann því lýst, ad sá fyrri sé úr gyldi geng-
inn, en þad, sem gamalt er og fornt, er því
nálægt ad lída undir lok.

## 9. Kapítuli.

*Fórnfæríngar Gamla Testamentisins voru ónógar. En sú fórn, sem Kristur frambar, fullnóg.*

1. Ad vísu hafdi sá fyrri sáttmáli reglu-
gjørdir fyrir Guds þjónustunni og jardneskann
helgidóm. 2. Því í fremra hluta tjaldbúdar-
innar, er kalladist þad heilaga, var kértahjálm-
urinn og bordid og skodunarbraudin 3. og bak vid
þad innra fortjald, var hinn annar hluti, er kallad-
ist þad allrahelgasta, 4. í hvørjum ad var þad gull-
lega reykélsis-kér og sáttmáls ørkin, er alla
vega var gulli búin, í henni var gullfatan med
Manna í og sá blómgadi Arons vøndur og
løgmáls spjøldin. 5. Uppyfir sáttmáls ørk-
inni voru þeir dýrdlegu Kerúbim, sem yfir-
skygdu lokid á sáttmáls ørkinni, frá hvørju hér ekki

---

V. 1. Kap. 1, 3. 13. Kól. 3, 1. V. 2. Kap. 9, 8. 11. 24. 10, 20. 21. V. 3. Kap. 5, 1.
Efes. 5, 2. V. 5. Kól. 2, 17. Hebr. 10, 1. 2 Mós. b. 25, 10. V. 6. Kap. 7, 22. 2 Kor.
3, 6. V. 8. Jer. 31, 31. fl. 33, 14. V. 9. 2 Mós. b. 19, 5. fl. V. 10. Jer. 24, 7.
Sak. 8, 8. V. 11. Esa. 54, 13, Jóh. 6, 45. Jerem. 31, 34. V. 2. 2 Mós. b. 26, 1 fl.
Kap. 25, 31. V. 3. 2 Mós. b. 26, 33. V. 4. 2 Mós. b. 25, 10. 16, 33. 4 Mós. b. 17,
8. 2 Mós. b. 25, 21. 34, 29. 1 Kóng. b. 8, 9. V. 5. 2 Mós. b. 25, 18.

gjørist þørf ad skíra sérílagi. 6. Sem nú þetta var þannig tilreidt, gengu prestarnir, er framkvæmdu Guds þjónustuna, daglega inní framsmusterid. 7. En í innra hluta musterisins, gékk einúngis sá ypparsti prestur eitt sinn á ári hvørju, ekki án blóds, er hann offra skyldi fyrir sínar og fólksins syndir, 8. med hvørju hinn helgi Andi vildi sýna, ad vegurinn til þess allra helgasta stædi enn þá ekki opinn, svo lengi sú fyrri tjaldbúd enn þá stód vid lýdi, 9. hvør einúngis vera skyldi sem fyrirmind allt til vorra tíma, þá gáfur og fórnir framberast, sem þó ekki megna, hvad samvitskuna snertir, ad gjøra þann fullkominn, sem ad Guds þjónustunni vinnur, 10. hvørs gudsdýrkan einúngis er í því fólgin ad halda sér frá vissri fædu og drykk, og í ýmislegum þvottum, hvørjar tilskipanir líkamann áhrærandi einúngis voru løgbodnar, þángad til ný endurbót yrdi þar á gjørd. 11. En þá Kristur kom, sem ypparsti Prestur, er oss skyldi afreka þau tilkomandi gjædi, gékk hann í gégnum hina stærri og fullkomnari tjaldbúd, sem ekki er med høndum gjørd, þad er: ekki bygd uppá jardneska vísu, 12. hafandi hvørki hafra né uxa-blód, heldur gékk hann eitt sinn med sitt egid blód inn í þad allrahelgasta og afrekadi oss eilífa endurlausn. 13. Hafi uxa- og hafra-blód og aska brendrar kvigu, sem støkkt var á þá, er óhreinir høfdu gjørst, hreinsad þá, er útvortis voru óhreinir, 14. hvørsu miklu framar mun þá blódid Krists, er í krapti þess eilífa Anda fórnfærdi sjálfann sig Gudi óflekkadann, hreinsa vora samvitsku af saurugum verkum, svo ad vér þjónum þeim lifanda Gudi. 15. Og þess vegna er hann medalgángari nýs Testamentis, ad þá hann væri dáinn til forlíkunar fyrir þau afbrot, sem skédu undir þeim fyrra sáttmála, allir þeir, sem kalladir voru, fá kynnu þá eilífu arfleifd, sem þeim var heitin. 16. Því hvar eitt Testament á ad géta fengid sinn fulla krapt, þar hlýtur þess daudi ad vera hljódbær, er þad gjørdi. 17. Því eitt Testament fær fyrst krapt vid eins dauda, en gyldir engannveginn medan sá lifir, er þad gjørdi. 18. Þess vegna var ekki heldur hinn fyrri sáttmáli saminn án blóds. 19. Því þá Móses hafdi lesid upp øll bodord løgmálsins fyrir fólkinu, tók hann uxa- og hafra-blód ásamt vatni og skarlats-raudri ullu og ísópi og støkkti á sjálfa løgbókina og allt fólkid, svo mælandi! 20. Þetta er blód þess sáttmála, sem Gud hefir samid vid ydur. 21. Sømuleidis støkkti hann blódi á samkundu tjaldbúdina og øll áhøld Guds-þjónustugjørdarinnar. 22. Og eptir Mósis løgum, hlýtur nærfeldt allt ad hreinsast med blódi og án blóds úthellíngar skédur enginn fyrirgéfníng. 23. Hér af flýtur þad, ad fyrst fyrirmind þess himneska verdur ad hreinsast med slíkum hlutum, þá hlýtur þad himneska sjálft ad hreinsast med þeirri fórn, er lángt yfirgángi þær jardnesku. 24. Því Kristur er ekki inngenginn í þann helgidóm, er med høndum sé gjørdur og sem einúngis sé eptirmind þess sannkallada

V. 6. 4 Mós. b. 18, 3. fl. V. 7. 3 Mós. b. 16, 2 fl. Hebr, 5, 3. V. 8. Esa. 35, 8. Jóh. 14, 6. Hebr. 10, 19. 20. V. 10. 1 Mós. b. 11, 2. fl. 4 Mós. b. 19, 7. fl. V. 11. Kap. 3, 1. 4, 14. V. 12. 3 Mós. b. 16, 3. Post. g. b. 20, 28 Kap. 10, 12. V. 13. 3 Mós. b. 16, 14. 4 Mós. b. 19, 9. fl. V. 14. 1 Pét. 1, 10. Opinb. b. 1, 5. Gal. 1, 4. 2, 20. Tít 2, 14. 1 Tess. 1, 9. Hebr. 6, 1. Lúk. 1, 74. Róm. 6, 13. V. 15. Kap. 12, 24. 1 Tím. 2 5. Róm. 5, 6. Kap. 6, 23. V. 17. Gal. 3, 15. V. 19. 2 Mós. b. 24, 5. 6. V. 20, 2 Mós. b. 24, 8. Matt. 26, 28. V. 21. 2 Mós. b. 29, 21. 3 Mós. b. 8, 15. 19. V. 22. 3 Mós. b. 17, 11. Efes. 7, 7. V. 24. Róm. 8, 34. 1 Jóh. 2, 1.

helgidóms, heldur er hann inngenginn í sjálf-
ann himininn, til þess nú að birtast fyrir Guðs
augliti vor vegna. 25. Ekki gékk hann held-
ur þar inn til þess að fórnfæra sér optar enn
einusinni, eins og sá ypparsti Prestur gengur
einusinni á hvörju ári inní það allra helgasta
með annarlegu blóði. 26. (Því annars hefði
hann optlega mátt pínslir líða frá því heim-
urinn var skapaður) heldur birtist hann þar
nú í eitt einasta skipti undir endalok veraldar,
þá hann fórnfærði sjálfum sér til synda afplán-
unar. 27. Og eins og mønnum er fyrirsett eitt-
sinn að deya, en eptir það er dómurinn, 28.
þannig er og Kristur eittsinn fórnfærður, til þess
að burttaka margra syndir, en í annað sinn
mun hann birtast, án þess að vera synda-fórn
øllum, sem hans vænta til frelsunar.

## 10. Kapítuli.

Sama efni. Uppvorfan til stöðuglyndis í trúnni.

1. Því løgmálið, sem einúngis hefir skugga
tilkomandi gæða, en ekki þeirra skíra mind,
megnar engannveginn með þeim sømu fórnum,
er árlega verða frambornar án afláts, fullkom-
lega að hreinsa fórnfærendurnar. 2. Því
hefði ekki annars verið hætt við að frambera
þær, þar fórnfærendurnir hefðu ekki framar
haft nokkra samvitsku stíngi, eptir það þeir
eittsinn voru orðnir hreinsaðir. 3. Slíkar fórn-
færíngar þéna miklu framar til þess að endur-
nýa árlega syndanna endurminníngu. 4. Því
það er ómøgulegt að uxa- og hafra-blóð géti
afmáð syndir. 5. Þar fyrir, þá Messías er
afmálaður, svo sem komandi í heiminn, er hann
látinn kveða svo að orði: offur og fórnir géð-
jast þér ekki, en a) líkama tilbjóstu mér. 6.
Á brennifórnum og synda offri hefir þú enga
velþókknun. 7. Þá sagði eg, eins og um mig
stendur skrifað í bókinni: sjá! eg kém, Guð!
þinn vilja að gjøra. 8. Þá hann fyrst hefir
sagt, að þú hvørki viljir, né hefir þókknun á
offrum, fórnfæríngum, brennifórnum né synda-
offrum, sem þó ega að framberast eptir Mó-
sis løgum. 9. Þá segir hann: sjá! eg kém
að gjøra þinn vilja; hann burttekur það
fyrra til að staðfesta það síðara. 10. Fyrir
þennann Guðs vilja erum vér helgaðir með
fórnfæríngu líkama Jesú Krists, sem einusinni er
skéð. 11. Sérhvørr prestur kémur fram til þess
daglega að fremja Guðs þjónustu og fram-
bera optlega hinar sømu fórnir, er þó engan-
veginn géta afrekað synda kvittun. 12. En
þá hann hafði fært eina einustu synda fórn,
situr hann að eilífu til Guðs hægri handar
13. og bíður framvegis þángað til óvinir hans
verða gjørðir að hans fóta skør. 14. Því
með einni fórn, hefir hann að eilífu fullkomna
gjørt þá, er helgaðir verða. 15. Um þetta
fullvissar oss og svo heilagur Andi; 16. því
eptir þessi orð: þetta er sáttmáli sá, er eg
eptirleiðis vil semja við þá, segir Drottinn,
mitt løgmál vil eg innræta í hjørtu þeirra og
skrifa það í þeirra hugskot; 17. og eg vil
ekki framar minnast synda þeirra, né misbrota.
18. Hvar þetta er fyrirgéfið, þar er ekki fram-
ar þørf fórnfæríngar vegna syndanna.

---

V. 25. 2 Mós. b. 30, 10. 3 Mós. b. 16, 2. fl. V. 26. v. 12. 28. Gal. 4, 4. V. 28. Róm. 5, 6. 8. V. 1. þ. e. sú mósaiska Guðsþjónusta. Kól. 2, 16. 17. Hebr. 7, 19. V. 4. 3 Mós. b. 16, 14. 18. 4 Mós. b. 19, 4, V. 5. Sálm. 40, 7. 50, 9. Esa. 1, 11, Amos 5, 21. a. þ. e. þann líkama, sem eg gæti þér fórnfært. V. 9. Sálm. 40, 8. 9. V. 10. v. 14. V. 11. v. 1. V. 12. Kap. 1, 3. 13. 8, 1. V. 13. Kap. 2, 8. Efes. 1, 20. V. 14. Kap. 9, 12. 25. V. 16. Jer. 31, 33. fl. Róm. 11, 27. Jóh. 6, 45.

19. Þar vér, brædur! fyrir Jesú blód höf-
um djörfúng til ad inngánga í þad allra-
helgasta, 20. hvört hann hefur opnad oss nýann
og sáluhjálplegann veg gégnum fortjaldid, þad
er: hans eginn líkama; 21. og þar vér höfum
einn mikinn prest yfir Drottins húsi, 22. þá
látum oss þad nálgast med einlægum hjörtum
og öruggu trúar trausti, ad hreinsudum vor-
um hjörtum frá vondri samvitsku. 23. Og
látum oss, ad laugudum vorum líkama í
hreinu vatni, halda fast vid játníngu vorrar
vonar, því trúr er sá, sem fyrirheitid hefir
géfid; 24. og géfum gjætur hvörjir ad ödr-
um, til þess ad uppörfa oss til kjærleika og
gódra verka; 25. og yfirgéfum ekki vorn söfn-
ud, sem sumra er sidur, heldur uppörfum hann
og þad því framar, sem þér sjáid ad dagurinn
nálgast meir. 26. Því ef vér syndgum af ásettu
rádi eptir þad vér höfum ödlast þekkíngu
sannleikans, þá géfst engin fórn framar fyr-
ir syndirnar, 27. heldur óttaleg eptirbid
dómsins og brennandi vandlætíng, sem tor-
týna mun hinum þverbrotnu. 28. Hljóti
sá, sem yfirtredur Mósis lög, án allrar vægd-
ar ad missa lífid, eptir tveggja eda þrigg-
ja votta vitnisburdi: 29. hve miklu þýngra
straffi haldid þér ekki sá sæta muni, er Son
Guds fótum tredur og álítur sáttmálans blód,
med hvörju hann er helgadur, ekki heilagra
enn hvört annad og smánar anda nádarinnar.
30. Því vér vitum hvörr sagt hefir: þad er
mitt ad hefna, eg vil endurgjalda, segir Drott-
inn, og enn aptur: Drottinn mun dæma sitt
fólk. 31. Skélfilegt er ad falla í hendur lif-
anda Guds. 32. Endurminnist hinna fyrri
daganna, á hvörjum þér máttud þola svo marg-
ar þreyngíngar, eptir þad þér vorud ordnir
upplýstir, 33. þá þér ýmist í allra augsýn mátt-
ud sæta smán og pínslum, en annad veifid taka
þátt í þeirra kjörum, er þannig voru medhöndl-
adir. 34. Því þér höfdud sampíningu med
þeim faungnu og tókud med gledi móti miss-
ir fjármuna ydvarra, af því þér vissud, ad
þér áttud betri og varanlegri fjársjód á himn-
um. 35. Kastid því ekki burt ydar örugga
módi, hvörr mikil laun mun ödlast. 36. Því
á þolgjædi hafid þér þörf, svo ad þér úr být-
um berid þau fyrirheitnu gjædi, fyrir þad þér
hafid gjört Guds vilja. 37. Því innan hardla
skamms tíma mun sá koma, sem væntanlegur
er og ekki tefja.

38. En sá réttláti af trú sinni mun hólp-
inn verda, en dragi nokkurr sig í hlé, mun
sála mín enga gédþekkni á þeim hafa, 39. en
vér erum ekki af þeim, er sig í hlé draga sjálf-
um þeim til fortöpunar, heldur af þeim, sem
trúa sér til sáluhjálpar.

## 11. Kapítuli.

Trúarinnar ágjæti.

1. En trúin er örugg eptirvæntíng þeirra
hluta, sem madur vonar og sannfæríng um þad,
sem hann ekki sjer. 2. Hennar vegna verdur
þeim fyrri mönnum hrósad. 3. Fyrir trúna

V. 19. Jóh. 10, 9. Efes. 2, 13. 18. V. 20. Jóh. 14, 6. Hebr. 9, 8. V. 21. Efes. 3, 12. Hebr. 4, 16. Kap. 13, 18. V. 23. Kap. 4, 14. 1 Kor. 1, 9. 1 Tess. 5, 24. V. 25. Kól. 3, 16. 1 Kor. 10, 11. þ. e. Messíasar koma. V. 26. 1 Mós. b. 15, 30. Matt. 12, 31. fl. V. 27. Esekk. 36, 5, Seff. 1, 18. 3, 8. V. 28. 4 Mós. b. 35, 30. 5 Mós. b. 11. 6. fl. V. 29. Kap. 2, 3, 12, 25. 1 Kor. 11, 25. V. 30. 5 Mós. b. 32, 35. v. 36. Sálm. 50, 4. V. 32. Gal. 3. 4. Fil. 1, 29. 30. V. 34. Post. g. b. 5. 41. Jak. 1, 2. Matt 5, 12. Kap. 6, 20. fl. V. 35. Matt. 10, 32. V. 36. Lúk. 21, 19. Hebr. 6. 12. V. 38. Róm. 1, 17. V. 1. Róm. 8, 38. 1 Kor. 2, 9. V. 3. 1 Mós. b. 1, 1—3. 2 Pét. 3, 5. Róm. 4, 17. 2 Kor. 4, 6.

fullvissumst vér um ad heimurinn sé skapadur fyrir Guds ord, á þann hátt, ad þad sýnilega sé til ordid af því ósýnilega. 4. Vegna Abels trúar, mat Gud fórn þá, er hann færdi honum fram yfir Kains, hennar vegna fékk hann vitnisburd ad hann væri réttlátur, því Gud lýsti velþókknun sinni yfir offri hans; hún gjørir þad, og ad hann enn nú talar af a) grøf sinni. 5. Vegna trúar sinnar var Enok burt numinn, ad hann ekki skyldi daudann sjá og hann fannst ekki framar, af því Gud hafdi numid hann í burtu, því ádur enn hans burtnumníng skédi, fékk hann þann vitnisburd, ad hann væri Gudi þókknanlegur. 6. An trúar er ómøgulegt Gudi ad þókknast, því sá, sem vill koma til Guds, verdur ad trúa því ad hann sé til og ad hann umbuni þeim, er hans leita. 7. Trúin gjørdi þad ad verkum, ad þá Nói var af Gudi advaradur um þad, sem enn þá ekki sást, óttadist hann Gud og smídadi ørkina til frelsis sínu húsi; med trúnni b) fordæmdi hann heiminn og vard hluttakandi þeirrar réttlætíngar, sem fæst fyrir trúna. 8. Fyrir trú sína hlýdnadist Abraham, þá honum var bodid ad fara til þess stadar, er verda átti hans ódal og hann fór, þó hann ekki vissi hvørt hann fara skyldi. 9. Fyrir trúna bjó hann í því fyrirheitna landi, eins og á annarlegri lód og héldt til í tjaldbúdum, ásamt þeim Isaak og Jakob, sem hluttakarar voru hins sama fyrirheitis. 10. Því hann vænti þeirrar borgar, er fastann grundvøll hefdi, hvørrar smidur og byggíngar-meistari sjálfur Gud er. 11. Fyrir trúna ødladist sjálf Sara krapt til barns gétnadar þótt hún væri úr barneign, því hún héldt þann trúfastann, sem fyrirheitid hafdi géfid. 12. Þess vegna kviknadi og af einum manni og þad ellihrumum slík nidja mergd, sem stjørnur eru á himni eda sandkorn vid sjáfarstrønd, sem ekki verdur tølu á komid. 13. Í trúnni dóu allir þessir, hafandi ekki fengid uppfyllíngu fyrirheitanna, heldur sjed þau áleingdar og breidt mót þeim fadminn, játandi ad þeir væru útlendíngar og géstkomandi á jørdu þessari. 14. En þeir, sem slíkt mæla, sýna þar med, ad þeir séu ad leita síns rétta fødurlands. 15. Því hefdu þeir meint til þess fødurlands, hvadan þeir komu, þá hefdu þeir haft tíma til ad snúa þángad aptur. 16. En nú þrádu þeir annars betra, þad er þess himneska fødurlands, fyrir því blygdast Gud ekki þeirra vegna ad kallast þeirra Gud, því hann hafdi tilreidt þeim borg. 17. Vegna trúar fórnfærdi Abraham syni sínum Isaak, þá Gud freistadi hans og sá fórnfærdi sínum einka-syni, 18. er fengid hafdi fyrirheitin og til hvørs þad hafdi sagt verid: af Isaak skal kynþáttur þinn ærlast, 19. því hann skynjadi þad med sér, ad Gud megnadi ad reisa upp frá daudum og þess vegna heimti hann hann aptur midt úr daudans hættu. 20. Vegna trúar um þad ókomna lagdi Isaak blessun sína yfir Jakob og Esaú. 21. Vegna trúar blessadi Jakob á deyanda

V. 4. a. 1 Mós. b. 4, 5. þ. e. til vor. Matt. 23, 35. V. 5. 1 Mós. b. 5, 24. Sir. 44, 18. V. 7. 1 Mós. b. 6, 8. 14. Róm, 3, 24. b. þ. e. gjørdi sínum órádvøndu samtída mønnum kinnroda og sannadi þá seka ad vera. V. 8. 1 Mós. b. 12, 14. V. 9. 1 Mós. b. 14, 13. 17, 8. V. 10. Kap. 12, 22. 13, 14. 2 Kor. 5, 1. Hebr. 3, 4. V. 11. 1 Mós. b. 17, 19. 21, 2 Róm, 4, 19. Hebr. 10, 23. V. 12. Róm. 4, 19. 1 Mós. b. 15, 5. 22, 17. V. 13. 1 Mós. 23, 4. 1 Kron. 29, 15. Sálm. 39, 13. V. 16. Kap. 2, 11. 2 Mós. b. 3, 6. V. 17. 1 Mós. b. 22, 1. fl. V. 18. 1 Mós. b. 21, 12. Róm. 9, 7. V. 19. 1 Mós. b. 22, 12. V. 20. 1 Mós. b. 27, 28. 39. V. 21. 1 Mós. b. 48, 15. Kap. 47, 31.

degi yfir báda syni Jóseps, hallandi sér framm á húninn á stafi sínum. 22. Vegna trúar taladi Jósep á sinni dauda-stundu um útgaungu Ísraels barna af Egyptalandi og gjørdi rádstøfun fyrir beinum sínum. 23. Vegna trúar føldu foreldrar Mósis hann í þrjá mánudi eptir hans fædíngu, af því þau sáu ad sveinninn var fagur og létu ekki skélfast af skipun Konúngsins. 24. Vegna trúar hafnadi Móses, þá hann var ordinn fulltída madur, sæmd þeirri ad kallast Faraós dótturson, 25. svo hann kaus heldur ad lída illt med Guds fólki, enn ad njóta skammvinnrar ánægju syndsamlegs munadar. 26. Og áleit þad meiri ávinníng ad lída vanvyrdu Krists, enn alla Egyptalands fjársjódu. 27. Vegna trúar yfirgaf hann Egyptaland og óttadist ekki Konúngsins reidi og tjádi sig stødugann, eins og hann sæi þann ósýnilega. 28. Vegna trúar héldt hann Páska og rjódradi blódi páskalambsins á sín dyra gjætti, ad sá, sem frumburdina deyddi, ekki skyldi snerta Gydínga. 29. Vegna trúar gengu Ísraelítarnir yfir hid rauda haf, sem annad þurrlendi, en þá Egyptskir freistudu hins sama, drukknudu þeir. 30. Vegna trúar hrundu Hjeríkós múrar, þá búid var ad gánga í kríngum þá í 7 daga. 31. Vegna trúar fyrirfórst ekki skjækjan Rahab ásamt þeim vantrúudu, af því hún tók fridsamlega móti njósnar-mønnunum. 32. Hvad skal eg framar hér um ræda? mig mundi skorta tíma ef eg færi ad segja frá Gedeon, Barak og Samsyni og Jefat, Davíd, og Samúeli og spámønnunum, 33. (er vegna trúar sinnar yfirunnu Konúnga-ríkin, frømdu réttvísina, ødludust fyrirheitin, byrgdu kjapt ljónanna), 34. sløkktu eldsins afl, umflúdu sverds eggjar, urdu styrkvir eptir veikindi, øflugir í strídi, komu her óvinanna á flótta, 35. kvinnurnar fengu aptur sína framlidnu. Adrir voru útþandir til píntínga og þádu þó ekki lausn, ad þeir ødludust adra betri upprisu. 36. Adrir máttu sæta hádyrdum og húdstrokum og þar á ofan fjøtrum og fángelsi; 37. (voru grýttir, sagadir, freistadir, lífl átnir med sverdi og þeir, hvørra heimurinn var ekki verdur, fóru um kríng í sauda- og geita-skinnum vid skort, þreyngíngar og misþyrmíngar) 38. ráfudu um fjøll og óbygdir í hellirum og gjótum. 39. En þótt allir þessir hefdu fengid vitnisburd um trú sína, ødludust þeir þó ekki fyrirheitin; 40. því Gud hafdi sjed betur fyrir vorum hlut, ad þeir ekki án vor algjørdir yrdu.

## 12. Kapituli.

Upphvøsun til stødugslyndis í trúnni og hlýdni vid Krist.

1. Fyrst vér erum umkríngdir af slíkum vitna fjølda, þá léttum á oss allri byrdi og

V. 22. 1 Mós. b. 50, 24. V. 23. 2 Mós. b. 2, 2. Post. g. b. 7, 20. 21. Kap. 5, 29. V. 24. 2 Mós. b. 2, 11. 12. V. 25. Sálm. 84, 11. V. 26. þ. e. líka vanvyrdu og Kristur leid. V. 27. 2 Mós. b. 2, 15. 12, 41. Jóh. 20, 29. V. 28. 2 Mós. b. 12, 18. V. 29. 2 Mós. b. 14, 22. V. 30. þ. e. Jósúæ. Jós. 6, 20. V. 31. Jós. 2, 19. 6, 20. V. 32. Dóm. b. 6, 11. 4, 6. 13, 24. 11, 6. 9. 1 Sam. b. 13, 14. 17, 45. Kap. 1, 20. V. 33. 2 Sam. b. 8, 1. 10, 19. 7, 12. Hebr. 10, 36. Dan. 6, 23. V. 34. Dan. 3, 25. 1 Sam. b. 19, 12. 20, 1. 2 Kóng. b. 20, 7. Job. 42, 10, Sálm. 6. 9. Dóm. b. 7, 11. 20. 1 Sam. 14, 6. 16. Dóm. b. 15, 15. V. 35. 1 Kóng. b. 17, 23. 2 Kóng. b. 4, 36. 2 Makkab. b. 6, 19. 28. 7, 1. fl. V. 36. Jer. 20, 2. V. 37. 1 Kóng. b. 21, 13. 2 Kóng. b. 1, 8. 1 Kor. 4, 11. V. 39. v. 2. V. 1. Róm. 6, 4. 13. 2 Kor. 7, 1. 1 Pét. 2, 1. 1 Kor. 9, 24. Fil. 3, 13. 14.

vidlodandi synd, og rennum þolgódir skeid þad, sem oss er fyrirsett horfandi til trúarinnar uppbyrjara og fullkomnara Jesú, 2. sem í stad gledi þeirrar, er hann átti kost á, þoldi krossfestíngu, og hann, sem mat einskis þótt hann smánadur væri, situr nú hægramegin vid Guds hásæti. 3. Gjætid ad þeim, sem slík mótmæli þoldi gégn sér af syndurunum, svo þér ekki þreytist og látid hugfallast í hjörtum ydrum.

4. Enn þá, sem komid er, hefir ydar stríd vid syndina ekki kostad ydur blód, 5. (og þó hafid þér gleymt þeirri huggunar grein, sem ávarpar ydur eins og børn: Son minn, lítils vyrdtu ekki hyrtíngu Drottins og láttu ekki heldur hug þinn falla, þó hann vandi um vid þig) 6. því hvørn þann Drottinn elskar, hinn sama agar hann og typtar, hvørn þann son hardlega, er hann ad sér tekur. 7. Ef þér umberid hyrtínguna, þá fer Gud eins med ydur, sem børn sín; 8. því hvørr er sá sonur, sem fadirinn ekki agi? en séud þér án hyrtíngar, í hvørri allir hafa tekid hlutdeild, þá erud þér í sannleika launsynir, en ekki skilgétin børn. 9. Ef nú vorir holdlegu fedur eru vorir typtunar-menn og vér samt berum vyrdíngu fyrir þeim, skyldum vér þá ekki miklu heldur vera undirgéfnir andanna Fødur, svo ad vér megum lifa? 10. því þeir øgudu oss um fáa daga eptir því, sem þeim leitst, en hann hyrtir oss sjálfum oss til góda, til þess vér verda skulum hluttakendur hans heilagleika. 11. En øll hegníng þykir heldur vera sorgar-en gledi-efni, medan á henni stendur; en eptir á géfur hún þeim, sem vid hana hafa fullkomnast, heilsusamann ávøxt rádvendninnar.

12. Réttid því hinar magnvønu hendurnar og þau máttþrota knén, 13. og stígid óskeift med fótum ydrum, svo ad sá hinn fatladi limur ekki vindist heldur læknist. 14. Stundid eptir fridsemi vid alla og heilagleikanum, án hvørs enginn kann Drottinn ad sjá. 15. Hafid gát á ad enginn sleppi af Guds nád, ad engin beisk rót renni upp, sem trublun af stad komi og margir þess vegna saurgist. 16. Ad enginn ydar sé frillulífis-madur né vanheilagur eins og Esaú, sem fyrir einn málsverd seldi sinn frumgétníngar rétt. 17. Því þér vitid ad honum var synjad, þá hann sídan vildi ødlast blessunina, því hans ydran var árángurslaus, þótt hann leitadi þess med tárum; 18. því þér erud ekki komnir til fjalls þess, sem þreifanlegt er, eda elds þess, er brenni, né til þoku, 19. mirkurs eda óvedurs eda básúnu-hljóms eda hinnar talandi raustar, hvørrar áheyrendur beiddust ad ekki væri lengur til sín talad 20. (því þeir stódust ekki þá skipun, ad jafnvel eitt dýr skyldi grýtast ef þad snerti vid fjallinu, 21. og svo var þad ógurlegt, sem fyrir augu bar, ad Móses sagdi: eg em hræddur og skjálfandi), 22. heldur erud þér komnir til fjallsins Síon og borgar Guds lifanda, hinnar himnesku Jerúsalem, og Englanna mørgu þúsunda til samkvæmis 23. og

V. 2. Lúk. 24, 26. 46. Post. g. b. 3, 15. 5, 30. Hebr. 1. 13. 8, 1. V. 3. Lúk. 2, 34. V. 4. 1 Kor. 10, 13. V. 5. Job. 5, 17. Ordskv. b. 3, 11. 12. V. 6. Opinb. b. 3, 19. V. 9. 4 Mós. b. 16, 11. 27, 16. Esa. 57, 6. V. 12. Esa. 35. 3. V. 13. Sálm. 73, 2. V. 14. Róm. 12, 18. 2 Tím. 2, 22. Matt. 5, 8. V. 15. 2 Kor. 6, 1. V. 16. Efes. 5. 3. Kól. 3, 5. 1 Mós. b 25, 33. V. 17. 1 Mós. b. 27, 34. fl. V. 18. 2 Mós. b. 19, 12. V. 19. 2 Mós. b. 20, 19. 5 Mós. b. 5. 25. fl. 18, 16. V. 20. 2 Mós. b. 19, 12. 13. V. 21. 2 Mós. b. 19, 16. V. 22. Esa. 2, 2. Gal. 4, 26. Opinb. b. 3, 12. Dan, 7, 10. V. 23. Lúk. 10, 20. 1 Mós. b. 18, 25.

samkundu hinna frumgétnu, hvørra nøfn eru skrifud á himnum og til Guds allra dómara 24. og til anda réttlátra, sem algjørdir eru ordnir og til Jesú medalgángara ens nýa sáttmála og til þess ádreifda blóds, sem betur talar a) enn Abel. 25. Sjáid vid því ad þér ekki útskúfid þeim, er talar, því ef þeir sluppu ekki strafflaust, sem útskúfudu þeim, sem á jørdu taladi Guds erindi, þá munum vér því sídur þad géta, ef vér þverskøllumst vid þann, er frá himni talar, hvørs raust ad þann tíd skók jørdina, 26. en nú hefir hann kunngjørt b) segjandi: enn nú einusinni mun eg skaka ekki einúngis jørdina heldur og svo himininn, 27. en þetta ord: **enn nú einusinni** gefur ad skilja, ad þeir skéknu hlutir skuli umbreytast, svo sem þeir, er med høndum séu gjørdir, svo ad þad vari vid, sem óskékid er. 28. Látum oss því, er fengid høfum eitt óbifanlegt ríki, sýna þakklátt hjarta, med hvørju vér þjónum Gudi, uppá honum þakknæmilegann máta, med blygdunarsemi og lotníngarfullum ótta. 29. Því vor Gud er fortærandi eldur.

## 13. Kapituli.

Ymislegar upphvatníngar, sem endast med þeim tilmælum: ad sofnudurinn vilji bidja fyrir hofundinum. Fyrirbænir. Sagt frá Tímóteusar lausn; heilsad og bedid ad heilsa; árnad góds.

1. Haldid stødugum bródur = kjærleika. 2. Gleymid ekki géstrisninni, því vegna hennar hafa nokkrir sér óafvitandi hýst Englana. 3. Minnist bandíngjanna, sem værud þér þeirra sambandíngjar og þeirra, er íllt lída, svo sem þeir, er sjálfir búa í líkama þessum. 4. Hjúskapurinn skal heidurlegur haldinn vera hjá øllum og hjónasængin óflekkud, því frillulífis = menn og hór=karla mun Gud straffa. 5. Sýnid enga fégirni í ydar hegdun, heldur látid ydur nægjast þad þér hafid, því Gud sjálfur hefir sagt: eg skal ekki sleppa þér né yfirgéfa þig, 6. svo vér megum øruggir segja: Drottinn er minn hjálpari og því skal eg ekki óttast, hvad géta mennirnir gjørt mér? 7. Verid minnugir ydar lærifedra, sem Guds ord hafa til ydar talad, skodid þeirra lífs afdrif og breytid eptir þeirra trúar støduglyndi. 8. Jesús Kristur er í dag og á morgun og ad eilífu einn og hinn sami. 9. Látid ydur ekki afvega leida af ýmislegum og annarlegum lærdómum, því þad er gott ad styrkja hjarta sitt vid Krists nádarlærdóm, en ekki vid nautnar reglur Gydínga, sem ekkért stoda þá, sem eptir þeim gánga. 10. Vér høfum eitt altari, af hvørs fórnum þeir ekki hafa rétt ad eta, er tjaldbúdinni þjóna. 11. Því blód þeirra dýra, sem til synda hreinsunar er af enum ypparsta Presti borid inní þad heilaga, þeirra hræ eru brennd fyrir utan herbúdirnar. 12. Þess vegna leid Jesús utan borgar hlida, ad hann helgadi lýdinn med

V. 24. Kap. 8, 6. 9, 15. 2 Mós. b. 24, 8. 1 Pét. 1, 2. Hebr. 10, 22. a. því þad krefst ekki hefndar eins og Abels blód, heldur lýsir synda kvittun. 1 Mós. 4, 10. Hebr. 11, 4. V. 25. Kap. 2, 3 10, 29. V. 26. b. Nefnil: þad, sem strax á eptirfylgir í sama versi. Hagg. 2, 6. V. 27. Sálm. 102, 27. 2 Pét. 3, 10. V. 28. Fil. 2, 12. V. 29. 5 Mós. b. 4, 24. 9, 3. Esa. 30, 27. V. 1. Róm. 12, 10. 1 Pét. 1, 22. V. 2. Róm. 12, 13. 1 Pét. 4, 9. 1 Mós. b. 18, 3. 19, 2. 3. V. 3. Matt. 25, 36. Róm. 12, 15. Kól. 4, 18. V. 4. 1 Kor. 6, 9. 10. V. 5. 5 Mós. b. 16, 9. 1 Tím. 6, 9. 10. Ordskv. b. 15, 16. Matt. 6, 25. 34. Fil. 4, 11, 1 Tím. 6, 6. 5 Mós. 31, 6. 8. Jós. 1, 5. V. 6. Sálm. 56, 5. 12. V. 7. v. 17. 1 Kor. 4, 16. 11, 1. V. 8. Sálm. 2, 9. Opinb. b. 1, 18. V. 9. Jer. 29, 8. Matt. 24, 4. Róm. 16, 17. Ef. 4, 14. 5, 6. fl. Jóh. 6, 27. Róm, 14, 17. V. 11. 3 Mós. b. 4, 5. 12. 21. 2 Mós. b. 29, 14. V. 12. Jóh. 19, 17. 18.

sínu blódi. 13. Gaungum því til hans út
fyrir herbúdirnar, berandi hans vanvyrdu; 14.
því vér høfum hér ekki varanlegann samastad,
heldur leitum vér annars tilkomanda. 15. Lát-
um oss því ætíd fyrir hans slutníng frambera
fyrir Gud lofgjørdar offur, þad er: ávøxt vara
vorra, er vidurkénna hans nafn. 16. Gleym-
id ekki velgjørdaseminni og greidvikninni, því
slíkar fórnir eru Gudi þakknæmilegar. 17.
Hlýdid ydrum kénnifedrum og verid þeim ept-
irlátir, því þeir vaka yfir ydar sálum, svo sem
þeir, er reikníngskap standa skulu, svo þeir
gjøri þad med gledi, en ekki med andvørpun,
því þér hafid ekki gott af því. 18. Bidjid
fyrir oss, því vér erum oss þess fullkomlega
medvitandi, ad vér høfum góda samvitsku og
viljum breyta vel í øllum greinum. 19. En
því heldur bid eg ydur þessa, ad eg þess fyrr
géti skilast ydur aptur.
20. En Gud fridarins, er uppvakti af dauda
Drottinn vorn Jesúm Krist hinn mikla hirdir
saudanna fyrir blód þess eilífa sáttmála, 21.
hann fullkomni ydur í øllu gódu verki, til ad
gjøra hans vilja, hann, sem fyrir Jesúm Krist
í ydur verkar, þad honum er þóknanlegt; hon-
um sé dýrd um aldir alda, Amen!
22. Eg bid ydur, brædur! ad þér látid ydur
ekki mínar upphvatníngar leidast, því fáordt
skrifadi eg ydur. 23. Eg læt ydur vita, ad
bródir vor Tímóteus hefir fengid lausn, ásamt
med hvørjum eg ætla ad sjá ydur, komi hann
brádum. 24. Heilsid øllum ydar leidtogum og
øllum heiløgum. 25. Þeir frá Italíu heilsa
ydur. Nád sé med øllum ydur, Amen!

# S. Jakobs Pistill.

## 1. Kapítuli.

*Heilsan og upphvørfan. Fátækir og ofsóktir kallast sælir. Orsøk til freistínga. Aminníngar.*

1. Jakob, Guds og Drottins Jesú Krists
þjón, heilsar þeim 12 kynkvíslum, sem á sundr-
úngi búa a).
2. Alítid þad mesta fagnadarefni, brædur
mínir! þegar þér ratid í ýmislegar raunir, 3.
því reynsla ydar trúar verkar støduglyndi. 4.
En støduglyndid á ad fullkomna verkid, svo ad
þér séud fullkomnir og algjørdir og í engu brest
hafid. 5. En vanti einhvørn ydar vitsku, sá
bidji þann, sem géfur øllum eptirtølulaust og
án brixlyrda og mun hún honum géfast. 6.
En hann bidji med trúnadar trausti og efist ekki;
því sá, sem er efablandinn, hann er líkur hafs-
ins bylgjum uppæstum og hrøktum af vindi.
7. Þvílíkur madur hugsi ekki ad hann fái nokk-

V. 14. Sálm. 39, 13. Mikk. 2, 10. Fil. 3, 20. 1 Pét. 2, 11. fl. V. 15. 3 Mós. b. 7, 12. Sálm. 50, 23. 51, 19. 1 Pét. 2, 5. Opinb. b. 1, 6. V. 16. 2 Kor. 9, 12. Fil. 4, 18. V. 17. Fil. 2, 29. 1 Tess. 5, 12. 1 Pét. 5, 5. Esa. 33, 2. 8. V. 18. Ef. 6, 18. 19. 2 Kor. 1, 12. V. 20. Post. gb. 2, 24. Esa. 40, 11. Esek 34, 23. Sakk. 9, 11. Jóh. 10, 11. V. 21. 2 Kor. 3, 5. Fil. 2, 13. 2 Tím. 4, 18. V. 25. Tít. 3, 15. V. 1. a. Þ. e. búa medal heidinna manna utan Gydingalands. Jóh. 7, 35. V. 3. Róm. 5, 3. V. 5. Ordsk. b. 2, 3—5. V. 6. Jóh. 14, 13.

ud hjá Drottni. 8. Hann, er madur tvílynd-
ur, óstødugur í øllu sínu rádlagi.
9. Sá lítilmótlegi bródir hrósi sér í sinni
upphefd a), en sá ríki í sinni lægíngu b); 10.
því eins og grasins blóm mun hann hverfa; 11.
því þá sólin hækkar med steikjandi hita, skrælnar
grasid og þess blóm dettur af og fegurd þess
útlits tortýnist; þannig mun hinn ríki visna á
sínum vegum. 12. Sæll er sá madur, sem
stendst reynsluna, því þegar búid er ad reyna
hann mun hann medtaka kórónu lífsins, sem
Gud hefir þeim heitid, er hann elska.
13. Enginn, sem freistast, segi: eg freistast
af Gudi, því Gud freistast ekki af hinu illa,
en hann sjálfur freistar og einkis; 14. heldur
freistast sérhvørr dreginn og veiddur af sinni
egin girnd; 15. sídan, þar á eptir þá girnd-
in hefir fengid gétnad, fædir hún syndina, en
þá syndin er fullproskud, fædir hún dauda.
16. Villist ekki, mínir elskulegu brædur! 17.
øll gód og øll fullkomin gjøf er ofanad og
kémur nidur frá Fødur ljósanna, hjá hvørjum
hvørki er umbreytíng né umskiptíngar skuggi.
18. Eptir sínu rádi fæddi hann oss c) med
sannleikans ordi, ad vér skyldum vera frum-
gródi hans sképna d).
19. Þar fyrir, brædur mínir elskulegir! sé
hvørr madur fús til ad læra, seinn til ad kénna,
seinn til reidi, 20. því mannsins reidi vinnur
ekki þad, sem rétt er fyrir Gudi. 21. Aflegg-
id því allann hrodaskap og gnægd illskunnar
og medtakid ordid med hógværd, sem í ydur er
gródursett, þad, sem kroptugt er til ad frelsa yd-
ar sálir. 22. En verdid ordsins gjørendur og
ekki einúngis heyrendur, hvar med þér svíkid
ydur sjálfa. 23. Því, sé einhvørr ordsins
heyrari og ekki gjørari, sá er líkur þeim manni,
sem skodar sinn medfædda andlits skapnad í
speigli; 24. hann skodadi sig ad sønnu, en
þá hann var burtgeinginn, gleymdi hann hví-
líkur hann var. 25. En sá, sem skygnist inní
hid fullkomna frelsis løgmál og heldur sér føst-
um þarvid, er ekki gleyminn heyrari, heldur
gjørningsins gjørari, hans breitni mun gjøra
hann sælan. 26. Þykist einhvørr ydar á med-
al gudrækinn og heldur ekki sinni túngu í taumi
en tælir sitt egid hjarta, hans gudrækni er fá-
nýt. 27. Hrein og óflekkud gudsdýrkan fyrir
Gudi og Fødur er sú: ad vitja munadarlaus-
ra og ekkna í þeirra þreyngíngu og ad vard-
veita sjálfann sig flekklausann frá heiminum.

## 2. Kapítuli.

*Menn skulu ekki fara í manngreinar álit. Audsýna øllum kærleika og hlýdnast øllum Guds bodordum. Trúin er daud án verka.*

1. Brædur mínir! hindrid ekki trú vors
dýrdlega Drottins Jesú Krists, med því ad fara
ad mannvirdíngum. 2. Því þegar madur
gengur inní ydar søfnud, sem gullhríng hefir
á hendi og er í skínandi klædum, en annar
fátækur í tøturlegum føtum, 3. og ydur verd-
ur starsýnt á þann, sem vel er búinn og þér
segid til hans: set þig hér heidurlega, og til
hins fátæka: stattú þar, eda settú þig hér vid
fótskør mína, 4. gjørid þér þá ekki greinar-
mun med sjálfum ydur og gjørist dómendur
vondra hugsana. 5. Heyrid, brædur mínir

V. 9. a. Þ. e. af því ad hann er ordinn kristinn. b. Þ. e. af því ad hann, er kominn til þekk-íngar á, ad audur og veldi ágjætir ekki manninn. V. 10. Esa. 40, 6—8. V. 17. Jóh. 3, 27. V. 18. 1 Pét. 1, 23. c. Þ. e. gjørdi ad ødrum og betri mønnum. d. Sbr. Róm. 8, 23. Jer. 2, 3. V. 19. Ordskv. b. 5, 1. 2. 17, 27. V. 21. Róm. 13, 12. Róm. 1, 16. V. 22. Matt. 7, 21. 24. V. 26. Sálm. 34, 14. V. 1. sbr. Ordskv. b. 24, 23. 5 Mós. 1, 17. V. 5. 1 Kor. 1, 26.

elskulegir! hefir Guð ekki útvalid þá fátæku í
heiminum, ad þeir audugir verdi ad trú og erf-
íngjar þess ríkis, er hann hefir heitid þeim,
sem hann elska? 6. En þér óvyrdid hina
fátæku. Eru þad þó ekki hinir ríku, sem und-
iroka ydur og draga fyrir dóm? 7. Koma
þeir ekki óordi á þad góda nafn, eptir hvørju
þér erud nefndir? 8. Þarfyrir ef ad þér
gjørid fullnustu því konúnglega bodordi sam-
kvæmt Ritníngunni: „elska skaltú náúnga þinn
sem sjálfann þig," þá gjørid þér vel; 9. en
ef þér farid í manngreinar álit, þá drýgid þér
synd og løgmálid færir ydur heim sanninn,
ad þér séud yfirtrodslumenn. 10. Því þó ein-
hvørr héldi allt løgmálid, ef hann verdur brot-
legur í einu (bodordi), þá er hann ordinn sek-
ur vid þau øll. 11. Því sá, sem baud: þú
skalt ekki hór drýgja, hann baud líka: þú skalt
ekki mann vega; en þó ad þú ekki drýgir hór,
ef ad þú vegur mann, ertú ordinn løgmálsins
yfirtrodslu-madur. 12. Þannig talid og þann-
ig breitid, sem þeir, er dæmast munu eptir frels-
isins løgmáli. 13. Því ómiskunsamur dómur
mun gánga yfir þann, sem ekki audsýnir misk-
un; miskunsemin gledur sig vid dóminn.

14. Hvad stodar þad, brædur mínir! þótt
einhvørr segist hafa trú, en hefir ekki verkin?
mun trúin géta frelsad hann? 15. Ef ad
bródir eda systir eru nakin og vantar daglegt
vidurværi, 16. en einhvørr ydar segdi til þeirra:
farid í fridi, vermid ydur og mettid, en géfid
þeim ekki þad, sem líkaminn þarf med, hvad
stodar þad? 17. Svo er og trúin, hafi hún
ekki verkin, þá er hún daud útaf fyrir sig.
18. En einhvørr kannské segi: þú hefir trú,
en eg hefi verk, sýn mér þá trú þína án verka
þinna; eg skal sýna þér mína af mínum verk-
um. 19. Þú trúir ad Gud sé einn, þú gjør-
ir vel; en djøflarnir trúa því líka og skélfast.
20. En, fávísi madur! þú skalt vita ad trúin
er daud án verkanna. 21. Abraham, fadir
vor, úrskurdadist hann ekki ad vera réttlátur
vegna verkanna, eptir þad ad hann hafdi lagt
son sinn Isaak uppá altarid? 22. Sjer þú ekki
ad trúin var samtaka verkum hans og ad trú-
in fullkomnadist med verkunum? 23. og Ritn-
íng svo rættist, sem segir: „Abraham trúdi
Gudi og þad reiknadist honum til réttlætis,"
og hann var kalladur Guds vinur. 24. Sjá-
id! ad madur réttlætist af verkunum og ekki
af trúnni einúngis. 25. Sømuleidis einnig
skjækjan Rahab, réttlætist a) hún ekki af verk-
unum, því hún tók vid njósnurunum og lét
þá fara frá sér adra leid. 26. Því eins og
líkaminn er daudur án andans, svo er og trú-
in daud án verkanna.

## 3. Kapítuli.

*Brúkun túngunnar. Vísdómi lýst.*

1. Verid ekki, brædur mínir! margir kénni-
fedur, med því þér vitid ad vér (kénnendurn-
ir) munum fá þýngri dóm; 2. því allir hrøsum
vér margvíslega. Verdi einhvørjum ekki á
í ordi, þá er hann madur fullkominn, fær um
ad stýra øllum sínum líkama. 3. Sjáid! vér
leggjum beitsli hestum í munn, svo þeir hlýdi

V. 7. nl. koma óordi á kristnina yfirhøfud. V. 8. 3 Mós. b. 19, 18. Matt. 22, 39. V. 9. 3 Mós. b. 19, 15. fl. V. 10. 5 Mós. b. 27, 26. Matt. 5, 19. fl. V. 13. sbr. Matt. 5, 34. 18, 35. 25, 34–46. V. 14. sbr. Matt. 7, 26. V. 16 1 Jóh. 3, 18. V. 18. Tit. 3, 8. V. 19. sbr. Mark. 1, 24. V. 21. 1 Mós. b. 22, 9 12. 15—18. V. 23. 1 Mós. b. 15, 6. sbr. Esa. 41, 8. 2 Kron. 20, 7. V. 25. a. Réttlætist af verkunum, þ. e. verkin frelsudu hana frá eydileggíngunni, sem hinir Jeríkómenn urdu fyrir, sbr. Jós. b. 2, 1. 6, 13. V. 2. Ordskv. b. 20, 9. Sálm. 34, 14. 1 Pét. 3, 10. V. 3. Sálm. 32, 9. Esek. 38, 4.

oss, og vér gétum sveigt allann þeirra líkama. 4. Lítid og til skipanna, hvørsu stór sem þau eru, og þó þau rekist af hørdum vedrum, verdur þeim samt stýrt med harla litlu stýri hvørt sem stýrimadurinn vill. 5. Þannig er túngan lítill limur, en rædst þó í mikid. Sjá! í hvørsu miklum skógi lítill neysti gétur kveikt. 6. Túngan er og eldur, heimur fullur ránglætis. Svo er túngan sett medal vorra lima, ad hún flekkar a) allann líkamann og upptendrar allt lífid b), sjálf upptendrud af helvíti; 7. því allar tegundir dýra og fugla, bædi skridkvikinda og sjódýra, temjast og hafa verid tamin af kyni manna, 8. en túnguna gétur enginn manna tamid, þessa óhemju, sem full er med banvænt eitur. 9. Med henni vegsømum vér Gud og Fødurinn og med henni formælum vér mønnunum, sem skapadir eru eptir Guds mind. 10. Af þeim sama munni framgengur blessan og bølvan; þetta má ekki svo vera, brædur mínir! 11. Hvørt mun sætt og beiskt vatn géta sprottid upp af sama uppsprettu auga nokkurrar lindar? 12. Mun fíkju-tréd, brædur mínir, géta af sér géfid, vidsmjørs ávøxt eda víntréd fíkjur? Þannig kann eigi heldur saltur brunnur géta af sér sætt vatn.

13. Sé nokkurr vitur og hygginn ydar á medal, hann láti med gódri umgengni verk sín lýsa hóglátri speki. 14. En ef þér hafid beiska øfund og áreitni í ydar hjarta, þá stærid ydur ekki og ljúgid ekki gégn sannleikanum. 15. Þvílík speki kémur ekki ofanad, heldur er hún jardnesk, holdleg, djøfulleg. 16. Því hvar, sem øfund og áreitni er, þar er sundurþykkja og øll vond háttsemi. 17. En sú speki sem ofanad er, hún er fyrst følskvalaus, þar næst fridsøm, sannsýn, full miskunar og gódra ávaxta; fer ekki í manngreinar mun, er hræsnislaus. 18. En réttlætisins ávøxtur verdur þeim í fridi sádur, sem fridinn stunda c).

## 4. Kapítuli.

Postulinn varar vid deilum. Rædur til lítillætis og audmýktar. Varar vid sjálfbyrgíngsskap.

1. Af hvørju koma stríd og bardagar á medal ydar? af hvørju ødru enn af ydar girndum, sem strída í ydar limum. 2. Þér girnist og fáid ekki; þér drepid og øfundid og gétid þó ekki ødlast; þér berjist og strídid og fáid þó ekki, af því þér bidjid ekki. 3. Þér bidjid og ødlist þó ekki, af því þér bidjid ílla, til þess ad þér gétid sóad því í ydar býlífi. 4. Þér hórdómsmenn og hórkonur! vitid þér ekki, ad vinátta heimsins er óvinátta Guds d)? þess vegna, hvørr, sem vill vera vinur heimsins, hann verdur óvinur Guds.

5. Eda haldid þér, ad Ritníngin tali forgéfins: mun sá andi, sem í oss býr, leida til øfundar? 6. hann géfur meiri nád e); því stendur skrifad: Gud mótstendur dramblátum, en lítillátum géfur hann nád. 7. Verdid því undirgéfnir Gudi, standid móti djøflinum og þá mun hann flýa ydur. 8. Nálægid ydur Gudi og þá mun hann nálægja sig ydur. Hreinsid

V. 5. sbr. Sálm. 12, 4. 5. 57, 5. V. 6. sbr. Matt. 15, 11. 18. a. þ. e. þegar illa brúkast. b. þ. e. eydileggur lífsins gledi. V. 8. Matt. 12, 34. V. 12. Matt. 7, 16. V. 13. Efes. 5, 15. V. 14. Efes. 4, 31. 1 Jóh. 4, 20. V. 15. 1 Kor. 2, 6. 7. V. 16. Gal. 5, 20. V. 18. Esa. 32, 17. c. þ. e. þeim er fridur búinn, sem leggja kapp á fridsemi. V. 1. Róm. 7, 23. 1 Pét. 2, 11. V. 4 sbr. Jóh. 15, 19. d. þ. e. ofmikil elska til ens jardneska, dregur til ad gjøra þad sem Gudi mislíkar. V. 6. e. þ. e. meiri farsæld, enn þad gétur gefid, sem menn øfunda adra af. sbr. Job. 22, 29. Sálm. 138, 6. V. 7. Efes. 4, 27. 6, 12. fl. V. 8. Esa. 1, 16. 59, 3. 6.

hendur ydar, þér, syndarar! og gjørid flekklaus
ydar hjørtu, þér tvílyndu! 9. Berid ydur illa,
syrgid og grátid; ydar hlátur skal umbreytast
í sorg og gledin í hrigd. 10. Audmýkid yd-
ur fyrir Drottni, þá mun hann upphefja ydur.

11. Talid ekki illa hvørr um annann, bræd-
ur mínir! sá, sem talar illa um bródur sinn
og dæmir hann, talar illa um løgmálid og
dæmir þad a); en ef þú dæmir løgmálid, þá
ertú ekki løgmálsins gjørari, heldur dómari.
12. Einn er løggjafinn og dómarinn, sá sem
kann ad frelsa og tortýna. En hvørr ertú, sem
dæmir annann?

13. Heyrid, þér, sem segid: í dag og á
morgun skulum vér fara til þessarar borgar,
dvelja þar eitt ár og kaupversla og græda,
14. (sem þó ekki vitid, hvad á morgun ské muni;
því hvílíkt er ydvart líf? gufa, sem sjest um
stund, en hverfur sídan), 15. í stad þess þér
ættud ad segja: ef Drottinn vill, og vér lifum,
þá viljum vér gjøra þetta eda hitt. 16. En
nú stærid þér ydur í ydar oflátúngsskap; allt
slíkt stærilæti er vondt. 17. Þarfyrir, hvørr
sem hefir, vit á gott ad gjøra, en gjørir þad
ekki, honum er þad synd.

## 5. Kapítuli.

Postulinn varar vid ad stóla uppá aud, og stæra sig
af honum. Uppørfar þá sem órétt lída til stød-
uglyndis, og ad vera eid-varir. Hvetur til bæn-
rækni, og til ad leidrétta þá sem villtir fara.

1. Heyrid nú, þér ríku! grátid og kveinid
yfir þeim eymdum, sem yfir ydur munu koma.
2. Ydar audur er þegar fúnadur og ydar
klædi ordin møljetin. 3. Ydar gull og silfur
er ordid rydbrunnid og rydid á því mun verda
vitni gégn ydur og eta ydar hold; þér hafid
fjársjódum safnad sem eldsneyti á sídustu døg-
unum. 4. Sjá! launin, sem þér hafid dreg-
id af verka-mønnunum, sem hafa slegid ydar
lønd, hrópa og køll kornskéru-mannanna eru
komin til eyrna Drottins allsherjar. 5. Þér
hafid lifad í sællífi og óhófi á jørdunni; þér
hafid alid ydar hjørtu, eins og til skurdar-
dags b). 6. Þér hafid dæmt til dauda og
drepid þann réttláta, hann stendur ekki á móti
ydur.

7. Þreyid því, brædur mínir! þar til Drott-
inn kémur. Sjáid! akuryrkju-madurinn vænt-
ir jardarinnar dýrmæta ávaxtar, og þreyir þar
til hann feingid hefir haust- og vor-regnid. 8.
Þreyid og þér, styrkid ydar hjørtu, því tilkoma
Drottins nálægist. 9. Kvartid ekki hvørr yfir
ødrum, brædur mínir! svo þér ekki verdid
dæmdir; sjá! dómarinn stendur fyrir dyrunum.
10. Brædur mínir! takid Spámennina, sem
talad hafa í Drottins umbodi, til eptirdæmis
uppá þad ad lída illt med þolinmædi. 11.
Sjá! vér prísum þá sæla, sem þolgódir eru;

V. 10. Jób. 22, 29. Lúk. 14, 11. V. 11. 3 Mós. b. 19, 16. 18. sbr. Matt. 7, 11. og Róm. 2, 1. a. þ. e. álítur þad marklaust, og sig ekki skuldbundinn ad hlýda því. V. 13. Lúk. 12, 18. 20. V. 14. Ordskv. b. 27, 1. Esa. 40, 6. 1 Kor. 7, 31. V. 15. 1 Kor. 4, 19. V. 17. sbr. Lúk. 12, 47. V. 1. Ordskv. b. 11, 28. 1 Tím. 6, 9. V. 2. Matt, 6, 19. V. 3. Róm. 2, 5. og eptir fl. V. 4. 3 Mós. b. 19, 13. 5 Mós. b. 24, 14. Job. 24, 10. 11. V. 5. Lúk. 16, 19—25. b. þ. e. þér alid ydur þángad til straffid dettur yfir ydur, eins og menn plaga ad ala fénad til slátrunar dagsins. Esa. 22, 13. Esek. 39, 17. eptir ff. V. 6. sbr. Matt. 5, 39. V. 7, Lúk. 21, 19. Hebr. 10, 36. 5 Mós. b. 11, 14. V. 8. 1 Kor. 10, 11. Fil. 4, 5. V. 9. sbr. Matt. 24, 33. V. 10. Matt. 5, 12. V. 11. Matt. 5, 11. Job. 1, 19—22. 42, 10—17. Sálm. 103, 8.

þér hafid heyrt gétid um þolgjædi Jobs og vitid hvør endalok Drottinn þar á gjørdi; því Drottinn er harla miskunsamur og líknsamur.

12. En umfram allt, brædur mínir! sverjid hvørki vid himininn né vid jørdina, né nokkurn annann eid; ydar já sé já og ydar nei sé nei, svo þér komid ekki undir dóm.

13. Egi einhvørr ørdugt ydar á medal, þá bidji hann; lídi honum vel, þá syngi hann (lof); 14. sé einhvørr veikur ydar á medal, þá kalli hann til sín øldúnga safnadarins og þeir bidja fyrir honum og smyrja hann vidsmjøri í nafni Drottins a). 15. Því trúud bæn mun frelsa þann sjúka og Drottinn mun reisa hann á fætur og sú synd sem hann hefir drýgt mun honum fyrirgéfin verda. 16. Játid hvørr fyrir ødrum ydar yfirsjónir og bidjid hvørr fyrir ødrum, svo ad þér heilbrygdir verdid. Mikid megnar krøptug bæn góds manns. 17. Elías var líkur oss ad breiskleika, samt, þá hann bad þeirrar bænar ad ekki skyldi rigna, þá rigndi ekki yfir landid í þrjú ár og sex mánudi. 18. Og þá hann bad aptur, gaf himininn regn og jørdin bar sinn ávøxt.

19. Brædur mínir! ef nokkurr medal ydar skyldi villast frá sannleikanum og einhvørr snýr honum aptur, 20. þá skal sá vita: ad hvørr, sem snýr syndaranum frá villu hans vegar, muni frelsa sálu frá dauda og hylja fjølda synda b).

# S. Péturs fyrri Pistill.

## 1. Kapítuli.

Postulinn óskar góds þeim kristnu í Asíu og s. frv. Prísar farsæld kristinna. Hvetur til ad lifa kristinni trú sambodnu líferni.

1. Pétur, Postuli Jesú Krists, heilsar þeim útvøldu útlendu, sem tvístradir eru útum Pontus, Galataland, Kappadokíu, Asíu og Bityniu, 2. hvørjir, eptir Guds Fødurs c) fyrirhugada rádi, helgadir eru med andans adstod, til þess þeir hlýdnist Jesú Kristi og d) hreinsadir verdi med hans blódi. Nád og fridur Guds margfaldist yfir ydur.

3. Lofadur sé Gud, Fadir Drottins vors Jesú Krists, sem med því ad uppvekja hann frá daudum, hefir eptir mikilli miskun sinni, endurfædt oss til lifandi vonar, 4. til hluttekníngar í þeirri arfleifd, sem ydur geymd er á himnum og óforgengileg er, fullkomin og

---

V. 12. Matt. 5, 34. fl. sbr. 2 Kor. 1, 17. 18. V. 14. a. nl. Jesú. V. 15. Sálm. 30, 2. V. 16. 4 Mós. b. 5, 7. Ordskv. b. 15, 29. Sálm. 145, 18. V. 17. Post. gb. 14, 15. 1 Kóng. b. 17, 1. Sír. 48, 2. 3. V. 18. 1 Kóng. b. 18, 41. fl. V. 19. Matt. 18, 15. Gal. 6, 1. 1 Tess. 5, 14. V. 20. Sálm. 51, 15. b. Þ. e. verda þess ollandi ad þeim sem snýr sér munu fyrirgéfast margar syndir, er hann hafdi ádur drýgt, sbr. Esa. 1, 16—18. V. 1. Jóh. 7, 35. Jak. 1, 1. Gydíngar kølludu sig vera í útlegd þegar þeir bjuggu í ødru landi enn Gydíngalandi. Utvaldir þeir af þessum, er vid kristni høfdu tekid. V. 2. c. Róm. 8, 29. d. Hebr. 9, 10—15. 19. 12, 24.

aldrei følnar, 5. ydur, sem fyrir Guds øflugu
adstod vardveitist med trúnni, svo ad þér ad=
njótandi verdid ydur fyrirbúinnar sælu, er á
sídasta tíma mun verda opinber. 6. Gledjist
þér vid, þótt þér nú um skamma stund (ef
svo hlýtur ad ské) hryggjast megid af margs=
konar freistíngum, 7. svo ad ydar reynda trú,
sem er lángtum dýrmætari enn forgengilegt
gull, þótt þad í eldi sé reynt, verdi ydur til
lofs, vegsemdar og dýrdar, þegar Jesús Krist=
ur opinberast, 8. hvørn þér elskid, þó þér ekki
hafid sjed hann, af hvørjum þér, sem trúid á
hann, þótt þér nú ekki á hann horsid, gledjist
óútmálanlegum og dýrdlegum føgnudi, 9. því
þér munud úttaka endurgjald fyrir ydar trú,
velferd ydar sálna. 10. Spámennirnir er
spádu um heill þá er vid ydur er framkomin,
hafa útí þessa sælu gruflad og grenslast eptir
henni; 11. Þeir leitudust vid ad uppgøtva til
hvørs og hvílíks tíma Krists Andi, sem í þeim
bjó, meinti, þá hann fyrirsagdi a) píslir
Krists og þar á eptir fylgjandi dýrd; 12. en
þeim var þetta opinberad, ekki þeim sjálfum
til gagns, heldur gagnadi þad ydur, hvørjum
þetta nú er kunngjørt af þeim sem boda ydur
gledibodskapinn med adstod heilags anda sem
er ofansendur frá himni b), hvar inní Eingl=
ana (jafnvel) fýsir ad skygnast.

13. Hafid þar fyrir lendar ydar hugskots
umgyrdtar c), verid varhygdarsamir, og setjid
algjørlega von ydar til þeirrar nádar, sem yd=
ur mun veitast vid tilkomu Jesú Krists; 14.
sem hlýdin børn, lagid eigi breitni ydar eptir
þeim girndum, er þér ádur þjónudud í van=
vitsku ydar, 15. heldur verdid heilagir í øllu
ydar dagfari, eins og sá er heilagur, er ydur
hefir kallad; 16. því skrifad er: „verid heilag=
ir, eins og eg em heilagur". 17. Og med
því þér ákallid þann sem fødur, er dæmir
sérhvørn d) án manngreinar álits eptir hans
verkum, þá framgángid, ydar e) útlegdar tíma,
med óttablandnri varúd; 18. þér vitid ad þér
eigi erud endurleystir med forgengilegu silfri
eda gulli frá ydar hégómlega athæfi, er þér
numid høfdud af fedrum ydar; 19. heldur
med dýrmætu blódi þess óflekkada og lítalausa
lambsins Krists, 20. sem ad sønnu f), ádur
enn grundvøllur heimsins var lagdur, var fyrir=
hugadur, en g) birtist á þessum sídustu tímum
vegna ydar, 21. ydar, sem vegna hans hafid
trú til Guds, er reisti hann upp frá daudum
og gaf honum dýrd, svo þér hefdud traust og
von til Guds. 22. Fyrst þér nú med hlýdni
vid sannleikans (lærdóm) hafid med andans ad=
stod, hreinsad ydar sálir til hræsnislausrar bródur=
legrar elsku, þá h) elskid hvørr annann kappsam=
lega af hreinu hjarta, 23. svosem þeir, sem i) end=
urgétnir eru, ekki af forgeingilegu sædi, heldur
óforgeingilegu, med Guds lífkrøptuga lærdómi,
er eilíflega mun gylda, 24. því allt hold er

V. 7. Róm. 5, 3-5. 2 Kor. 4, 17. Jak. 1, 3. 12. V. 8. 2 Kor. 5, 7. 1 Jóh. 4, 20. Hebr. 11, 27. Þeir, til hvørra bréf þetta er skrifad, høfdu aldrei sjed Jesúm sjálfann. Jóh. 20, 29. V. 10. 1 Mós. 49, 10. Dan. 2, 44. 9, 24. Hagg. 2, 7. 8. Matt. 13, 17. V. 11. a. Sálm. 22, 7. Esa. 53. Dan. 9, 26. Lúk. 24, 26. Pgb. 26, 23. V. 12. Pgb 2, 4. 3, 15-26. b. Efes. 3, 10. V. 13. c. P. e. haldid ydur ferdbunum ad framgánga, (þ. e. breita), sem réttkristnir, sbr. Efes. 6, 14. V. 15. Matt. 5, 48. V. 16. 3 Mós. 11, 44. 19, 2. V. 17. d. 5 Mós. 10, 17. e. 2 Kor. 5, 6. V. 18. 1 Kor. 6, 2. 7, 23. V. 19. Hebr. 9, 12. 14. 22. 10, 19. 29. sbr. Róm. 5, 10. Øll fornøld héldt synda fyrirgéfníng feingist ei án blóds úthellíngar og gáfu; en sjá samt hvad Esaí: 1, 10—17. krafdi undir eins, hvad samanberist vid Kól. 1, 14. 20. 22. Jak. 1, 27. V. 20. f. Efes. 1, 9. g. Gal. 4. 4. V. 21. Pgb. 2, 24. Filip. 2, 9. V. 22. h. 1 Tím. 1, 5. V. 23. i. Jak. 1, 18. V. 24. Esa. 40, 6-8.

sem gras, og þess vegsemd, sem blómi grass-
ins, grasid er þegar skrælnad, og þess blómi
affallinn, 25. en ord Drottins varir ad ei-
lífu, og þad er þad ord, sem ydur er bodad.

## 2. Kapítuli.

Postulinn áminnir ad halda fast vid Jesú óbrjálada lærdóm, fordast lesti og stunda dygdir, ad þeir med því ad fordast holdlegar girndir med hlýdni vid yfirvaldid og bródurlegum kjærleika nidurþaggi oll illmæli gégn sér. Skyldur þjónustu fólks.

1. Afleggid þar fyrir allslags vondsku og
alla pretti, hræsni, øfund og allt baktal, 2.
og sækist, eins og a) nýfædd børn, eptir þeirri
skinsømu b), ómeingudu mjólk, svo þér af henni
þroskist ydur til velferdar; 3. þared þér hafid
smakkad, hvørsu sætur Drottinn er. 4. Med
því þér erud komnir til þessa lifandi steins c),
sem ad sønnu er af mønnum útskúfadur, en
af Gudi útvalinn og dýrmætur, 5. svo látid
ydur uppbyggjast sem lifandi steina (til þess
þér verdid) andlegt musteri, heilagt presta-
félag, til ad frambera andlegar fórnir, Gudi
velþóknanlegar fyrir (adstod) Jesú Krists. 6.
Þar fyrir stendur (skrifad), í Ritníngunni:
„sjá! eg set hornstein í Síon útvalinn og dýr-
mætann, sá sem setur sitt traust til hans mun
eigi til skammar verda". 7. Ydur, sem trúid
er hann dýrmætur; en þeim vantrúudu er sá
steinn, sem byggendurnir burtsnørudu ordinn
ad hyrníngar steini, 8. „og ad ásteitíngar
steini og kletti veidibrellunnar". Þeir sem hrasa,
eru þeir sem ekki trúa lærdóminum d); þar til
voru þeir og settir. 9. En þér erud útvalin kyn-
slód e), Konúnglegt presta-félag, heilagur lýdur,
(Guds) egid fólk, til þess ad vídfrægja skyld-
ud þess mikilleika, sem kalladi ydur frá mirkr-
inu til síns addáanlega ljóss. 10. Þér sem
fordum ekki vorud lýdur, erud nú ordnir lýdur;
þér sem ekki nutud miskunar, hafid nú misk-
un hlotid.

11. Þér ástkjæru! eg áminni ydur, sem
gésti og útlenda, ad þér f) haldid ydur frá
holdlegum girndum, hvørjar gégn sálunni strída.
12. Hegdid ydur vel medal heidinna þjóda,
svo ad þeir, midt í því þeir rógbera ydur sem
illgjørda menn, vegna ydar gódverka, þegar
þeir gjæta grant ad, á þeirra vitjunartíma
vegsami Gud. 13. Verid því undirgéfnir sér-
hvørju af mønnum tilsettu yfirvaldi, hvørt
heldur þad er Konúngurinn, svo sem þeim
ædsta, 14. eda þad eru landshøfdíngjarnir, svo
sem þeim er af honum eru sendir illgjørda-
mønnum til refsíngar, en lofstírs þeim, sem
vel breita; 15. Því þad er vilji Guds, ad
þeir sem vel breita nidurþaggi óviturleika heimskra

Jak. 1, 10. 11. V. 1. Kól. 3, 8. V 2. a. Matt. 18, 3. b. sbr. Hebr. 5, 12. 13. 2 Kor. 2, 17. V. 3. Matt. 11, 29. 30. Sálm. 34, 9. V. 4. c. þ. e. dírmætur steinn, vegna þess ad hann er hornsteinn (v. 7) sem heldur allri bygginguuni saman. Kristninni er opt í N. Testam. líkt vid hús; sérhvørr kristinn er 1 steinn í þessari byggíngu, en trúin á Krist samein-ar þá alla (þessvegna er hann hyrníngarsteinn) svo þeir verdi andlegt musteri, (Efes. 2, 21. 22.) þ. e. brædra félag, í hvørju andlegt hugarfar drottni. (Efes. 5, 27.) Er heilagt presta-félag er kallast kristnir, af því hvør einn sannkristinn má nálægja sig Gudi og frambera sínar andlegu fórnir. Róm. 12, 1. V. 8. Esa. 28, 16. Sálm. 118. 22. Post. g. b. 4, 11. Lúk. 2, 34. d. Jóh. 15, 16. Post. g. b. 13, 48. 1 Tess. 5, 9. Guds rádstafanir eru óransakanlegar, en madurinn er sekur sem ekki hagnýtir sér þær upphvatníngar til góds, sem honum géfast. sbr. Róm. 2, 12. V 9. e. 2 Mós. 19, 6. 5 Mós. 7, 6. Tít. 2, 14. V. 10. Hós. 2, 1. 25. Róm. 9, 25 V. 11 f. Róm. 8, 14. 13, 1. 4. 2 Kor. 10, 3. V. 12. Matt. 5, 16. Róm. 12, 17. Filip. 2, 5. V. 13—15. Róm. 13, 1—7. Tít. 2, 8.

manna. 16. Svo sem frjálsir menn, en ekki sem þeir er brúka frelsid vondskunni til yfirhilmíngar, heldur svo sem þrælar Guds, 17. skulud þér alla virda; elska brædra félagid, óttast Gud, heidra Konúnginn.

18. Þjónustu mennirnir séu undirgéfnir drottnum sínum med óttablandinni varúd, ekki einúngis þeim gódu og blídu heldur einnig þeim ósanngjørnu; 19. því þad er nád, ef nokkur vegna samvitskunnar um Gud umber hid sorglega, er hann óréttilega lídur. 20. Því hvør frægd er í því, ad þér fyrir misgjørda sakir høgg lídid, en ef þér, þó þér breitid vel, lídid íllt og erud þolinmódir, þad (ávinnur sér) nád hjá Gudi; 21. því hér til erud þér kalladir, því Kristur leid einnig fyrir oss og eptirlét oss munstur til ad breita eptir, svo ad vér skyldum feta í hans fótspor. 22. Hann drýgdi ekki synd og ekki eru svik fundin í hans munni; 23. eigi illmælti hann aptur, þó honum væri illmælt, eda brúkadi hótunaryrdi þá hann leid, heldur gaf þad í þess vald, sem réttvíslega dæmir; 24. og bar (sjálfur) vorar syndir á sínum líkama uppá tréd, svo vér skyldum skilja vid syndirnar og lifa réttlætinu; fyrir hans benjar erud þér læknadir. 25. Þér vorud sem fráviltir saudir, en nú hafid þér snúid ydur til hyrdirs og biskups ydvarra sálna.

## 3. Kapítuli.

Áminnir hjónin til kristilegrar breitni hvørt vid annad, og alla til dygdugs lífernis yfirhøfud.

1. Þér konur, verid sømuleidis ydrum ektamønnum undirgéfnar, svo, þó ad nokkrir séu þeir, sem ekki vilja lærdóminum hlýdnast, ad þeir, án ordsins (kénníngar) a), af kvennanna dagfari kunni ad vinnast, 2. þegar þeir sjá ydar skírlífu hegdan í ótta (Drottins). 3. Hvørra skart ekki sé (fólgid) í því útvortis: í hárfléttum, gullskarti og dýrmætum búnadi, 4. heldur í hjartans innvortis ásigkomulagi, í óforgeingilegu (skarti) hógværs og kirrláts hugarfars sem dýrmætt er fyrir Guds augliti. 5. Þannig prýddu sig fordum hinar heiløgu konur, er settu sína von til Guds, og voru sínum eigin mønnum undirgéfnar. 6. Þannig hlýddi Sara Abraham og kalladi hann herra, hvørrar (sønnu) dætur þér verdid, þegar þér hegdid ydur vel og einga skélfíngu hrædist. 7. Sømuleidis þér ektamenn, búid med skinsemi saman vid konurnar, svo sem veikari sképnur, audsýnid þeim virdíngu, sem þeim, sem eru ydar samarfar í lífsins nádargjøf, svo ydar bænagjørdir ekki hindrist. 8. Í einu ordi, verid samhuga, medaumkunarsamir, bródurlega sinnadir, miskunsamir, ljúflyndir, 9. gjaldid ekki íllt med íllu, smánaryrdi med smánarordum, heldur þvert á mót blessid, svo sem þeir er vitid, ad þér erud til þess kalladir, ad þér

---

V. 16. Kristur hefir ekki géfid mønnum leifi til ad lifa eptir sínum girndum, heldur eptir því sem samvitskan seigir manni ad rétt sé; og ef madur lifir eptir því, þá er madur sannarlega frjáls, annars eru menn syndarinnar þrælar Jóh. 8, 32. 34. 36. Róm. 6, 18. Gal. 5, 13. V. 17. Matt. 15, 4—6. Jóh. 5, 23. 8, 49. Róm. 13, 7. 8. 12, 10. V. 18. Efes. 6, 5. ff. Tít 2, 9. 10. V. 19. Matt. 5, 10. V. 20. 3, 14—17. V. 21. 3, 18. Jóh. 13, 14. 15. Filip. 2, 6—8. Jóh. 8, 46. V. 22. 2 Kor. 5, 21. V. 23. 3, 9. V. 24. Es. 53, 4—7. Róm. 5, 6—11. V. 25. Es. 53, 9. Jóh. 10, 11. sbr. Lúk. 15, 4. Esek. 34, 6. 37, 24. Sálm. 119, 176. V. 1. Efes. 5, 22. Kól. 3, 18. a. 1 Kor. 7, 16. V. 3. 1 Tím. 2, 9. V. 6. 1 Mós. 18, 12. V. 7. Efes. 5, 25. 1 Kor. 7, 3. Kól. 3, 19. V. 8. Róm. 12, 16. 15, 5. 1 Kor. 1, 10. V. 9. 3 Mós. 19, 18. Ordskv. 20, 22. Matt. 5, 39.

skulid blessunina øðlast. 10. Sá sem sína farsæld hefur kjæra og sjá vill góda daga, hann haldi túngu sinni frá vondu og sínum vørum frá prettvísi, 11. sneidi sig hjá íllu og gjøri gott, stundi fridsemi og leggi kapp þará; 12. því augu Drottins líta til hinna réttlátu og hans eyru hneigjast til þeirra bæna, en auglit Drottins er gégn þeim sem vondt adhafast. 13. Og hvørr mun ydur géta grandad, ef þér leitid þess sem gott er? 14. En þó þér íllt lídid fyrir réttlætisins sakir, erud þér samt sælir. Hrædist ekki þeirra ógnanir og skélfist eigi fyrir þeim, 15. heldur dýrkíd Drottinn Gud í ydar hjørtum, en verid (samt) ætíd reidubúnir med hógværd og virdíngu til forsvars fyrir hvørjum (manni), er krefur af ydur reikníngskapar fyrir þá von a), sem í ydur er, 16. eins og þeir, sem hafa góda samvitsku, svo ad þeir sem rógbera ydur sem illgjørda menn verdi til smánar fyrir þad, ad þeir hallmæla ydar gódu kristilegu breitni; 17. því þad er betra, ef Gud vill svo vera láta, ad þér lídid íllt fyrir gódverk, heldurenn fyrir vond verk. 18. Kristur leid og svo einusinni fyrir syndirnar, sá réttláti fyrir hina ránglátu, til þess hann leiddi oss til Guds; ad líkamanum til var hann deyddur, en lifandi gjørdur eptir andanum, 19. í hvørjum hann einnig er burt geinginn og hefur kénnt þeim í vardhaldi (verandi) øndum, 20. sem þverskølludust þegar Guds lánglundar géd á døgum Nóa beid eptir þeirra betrun, medan ørkin var í smídum, í hvørju fáar, þad er: átta sálir frelsudust í vatninu, 21. og nú gjørir skírnin — hvør ekki er burttekt líkamans saurugleika, heldur sáttmáli gódrar samvitsku vid Gud — svo sem eptirmind (ennar fyrri frelsunar) oss hólpna vegna upprisu Jesú Krists, 22. hvørr ed situr vid Guds hægri hønd uppfarinn til himins, hvar Englar, maktarvøld og høfdíngjar eru honum undirgéfnir.

## 4. Kapítuli.

Hvetur ad fordast þá lesti er ádur drýgdu, stunda kristilegar dygdir og lída þolinmódlega ofsóknir.

1. Þar fyrir fyrst Kristur hefir lidid á líkamanum vor vegna, svo brynjid ydur einnig sama hugarfari (því sá sem lídur á holdinu, lætur af ad syndga), 2. svo ad þér ekki framar, þad eptir er af því líkamlega lífi, lifid holdlegum girndum, heldur samkvæmt Guds vilja. 3. Nægi oss þad, ad vér, þad sem af er lífdaganna, høfum fylgt heidnra manna sídum, lifad í stjórnleysi, (vondum) girndum, ofdrykkju, óhófi, samdrykkjum og svívirdilegri skúrgodadýrkun; 4. hvar fyrir þá furdar þad, ad þér (nú) ekki viljid hlaupa med þeim út í hid sama ógjæfu díki og tala því illa um ydur; 5. en þeir munu meiga gjøra reikníngsskap fyrir þeim, sem reidubúinn er ad dæma lifendur og dauda. 6. Þessvegna er og þeim, sem daudir eru, nádarbodskapurinn kunngjørdur, ad þó ad þeir af mønnum fordæmdir verdi, hvad holdid snertir, skuli þeir samt Gudi lifa hvad andann

V. 10. Sálm. 34, 13. 14. Jak. 1, 26. 3, 6. V. 11. Esaías. 1, 16. 17. V. 12. Sálm. 33, 18. 34, 16. 17. V. 13. Sír. 7, 1. V. 14. Matt. 5, 10. 10, 28. Es. 8, 12. 13. V. 15. Sálm. 119, 46. a. nl. von eilífrar farsældar. V. 16 og 17. 2, 12. 15. 19. 20. V. 18. 2, 21. Hebr. 9, 28. Róm. 5, 6. V. 20 1 Mós. b. 6, 3. 13. 2 Pét. 3, 5. V. 21. Mark. 16, 16. Efes. 5, 24. 25. Tít. 3, 5. sbr. 1 Pét. 1, 22. 23. V. 22. Róm. 8, 34. Efes. 1, 20. ff. V. 1. Kap. 2, 21—24. Róm. 6, 7. Fil. 2, 5. 12. V. 3. Gal. 2, 20. Hebr. 9, 14. V. 3. og 4. Efes. 4, 17. 18. V. 5. 2 Kor. 5, 10. Pgb. 10, 42. 2 Tím. 4, 1. Jóh. 5, 25. V. 6. 3, 19.

snertir. 7. En endir allra hluta nálgast; hegd=
id ydur því skinsamlega og verdid árvakrir til
bæna; 8. en umfram alla hluti hafid innilega
elsku hvørr til annars, því elskan mun hylja
fjølda synda. 9. Verid géstrisnir a) innbyrdis án
møglunar. 10. Hvørr (ydar) þjóni ødrum
eptir þeirri gáfu sem hann hefir þeigid, eins
og gódir rádsmenn margvíslegrar Guds nád=
ar. 11. Sá sem kénnir, (kénni) svo sem Guds
ordi hæfir. Sá sem þjónustu hefir á hendi,
gjæti hennar eptir þeim mætti, sem Gud géf=
ur honum, svo ad Gud í øllum greinum veg=
samist fyrir Jesúm Krist, hvørjum (tilheyrir)
dýrdin og mátturinn um aldir alda. Amen!

12. Látid ydur eigi undra, mínir ástkjæru!
þá eldraun med hvørri þér reyndir verdid, eins
og ydur hendi eitthvad óvænt; 13. heldur
gledjid ydur (þaraf), ad eins og þér hluttak=
andi erud í Krists pínslum, eins muni og yd=
ar føgnudur mikill verda þegar hans dýrd
verdur opinber. 14. Sælir erud þér, nær þér
vanvirdtir erud fyrir Krists nafns sakir, því
þá hvílir yfir ydur Guds, dýrdarinnar og mátt=
arins andi, sem ad sønnu lastast af hinum, en
vegsamast af ydur. 15. Því enginn ydar lídi
íllt sem manndrápari, þjófur, íllvirki eda sem
sá, er hnísist inní þad, sem honum eigi vidkém=
ur, slettir sér frammi annara málefni, 16. en
ef nokkur íllt lídur (vegna þess) hann er krist=
inn, þá fyrirverdi hann sig ekki, heldur veg=
sami Gud fyrir þad. 17. Því nú er sá tími,
ad dómurinn byrji á Guds húsi; en ef (hann
byrjar) fyrst á oss, hvílík munu þá afdrif þeirra
verda sem ekki vilja trúa Guds gledi bodskapi,
18. og ef hinn rádvandi naumast frelsast, hvar
mun þá hinn ógudlegi og syndarinn lenda?
19. Þarfyrir skulu þeir og sem (íllt) lída ept=
ir vilja Guds, med gódri breitni fela sálir sín=
ar á hendur þeim trúfasta skapara.

## 5. Kapituli.

Øldúnganna skylda vid hina ýngri, og hinna ýngri vid þá. Býdur ad hvørr kristinn sýni ødrum lítillæti og séu árvakrir. Gódar óskir.

1. Eg øldúngur og vottur b) Krists pínsla,
er ásamt ydur mun hlutdeild fá í þeirri dýrd,
sem sídar mun opinber verda, áminni ydur
mína medøldúnga, 2. ad þér gjætid þeirrar
Guds hjardar, sem medal ydar er, ekki naud=
ugir heldur af frjálsum vilja, né fyrir ávinn=
íngs sakir, heldur fúslega; 3. eigi sem þeir,
sem hardlega vilja drottna yfir (Drottins) arf=
leifd, heldur svo sem þeir, sem eru fyrirmind
hjardarinnar; 4. þá múnud þér, þegar hinn
ædsti hyrdir birtist, bera úr bítum dýrdarinnar
kórónu c), sem aldrei følnar. 5. Sømuleidis ver=
id þér hinir ýngri øldúngunum hlýdnir.

En verid allir hvør ødrum undirgéfnir og
skrídist lítillætinu; því Gud mótstendur dramb=
látum, en lítillátum veitir hann nád d). 6. Legg=

V. 7. Mark. 13, 29. 2 Pét. 2, 3—13. sbr. 1 Tess. 4, 17. 1 Kor. 10, 11. Kól. 4, 2. V. 8. 1 Kor. 13, 7. Jak. 5, 20. V. 9. a. Róm. 12, 13. Hebr. 13, 20. V. 10. og 11. 1 Kor. 12, 3—13, 7. 13. sbr. Matt. 25, 31—45. Róm. 12, 6. ff. V. 12. Jak. 1, 2. V. 13. og 14. Matt. 5, 10—13. sbr. Post. g. b. 5, 41. V. 15. Kap. 2, 20. V. 16. Jóh. 21, 18. 19. V. 17. og 18. Af ymsum stødum G. T. Jerem. 25, 29. 49, 12. Esek 9, 6. ff. drógu Gydínganna lærdu menn þad: ad fyrst mundi hegnt verda afbrotum Guds fólks. V. 19. Sálm. 31, 6. Lúk. 23, 46. V. 1. b. Lúk. 24, 48. V. 2. Pgb. 20, 28. V. 3. Matt. 20, 25—28. 1 Kor. 3, 5. ff. 12. ff. Arfleifd Drottins, kallast Gydínga lýdur í G. T. en kristnir kallast þad í N. T. V. 4. Esa. 40, 11. Esek. 34, 23. Hebr. 13, 20. Jóh. 10, 11. c. 1 Kor. 9, 25. V. 5. Róm. 12, 10. Fil. 2, 3. d. Jak. 4, 6. Lúk. 14, 11. V. 6. Jak. 4, 10. Job. 22, 29.

id ydur þarfyrir undir Guds voldugu hønd, ad
hann á (sínum) tíma upphefji ydur. 7. Varp-
id allri ydar áhyggju uppá hann, því hann ber
umhyggju fyrir ydur. 8. Verid gjætnir, vak-
id, því ad ydar mótstandari, djøfullinn, geing-
ur umkríng sem øskrandi ljón, leitandi ad þeim,
sem hann géti gleipt. 9. Mótstandid honum
stødugir í trúnni og vitid, ad ydar brædur
(annarstadar) í heiminum fyrirhittir sama neyd.
10. En Gud allrar nádar, sem ydur hefir
kallad til sinnar eilífu dýrdar í Jesú Kristi,
eptir ad þér þjáſt hafid um lítinn tíma, hann
fullkomni ydur, styrki, efli og stadfesti; 11.
hans er dýrdin og valdid um aldir alda. Amen.
12. Þetta hefi eg látid Silvanus a), skrifa b)
ydur, sem er trúr medbródir, ad eg held, og
áminni eg og hátídlega vitna, ad þetta er sú
sanna Guds nád, svo ad þér haldid ydur føst-
um vid hana. 13. Ydur heilsar c) sá ásamt
ydur útvaldi (søfnudur) í Babylon, og Mark-
ús, sonur minn. 14. Heilsid hvørr ødrum med
kjærleiks kossi. Fridur sé med ydur øllum,
sem erud í Kristi Jesú.

# S. Péturs sídari Pistill.

## 1. Kapítuli.

Postulinn óskar góds þeim trúudu. Hvetur til dygda. Sýnir trúverdugleika kénníngar sinnar.

1. Símon Pétur, þjón og Postuli Jesú
Krists, óskar þeim sem eins og vér hlotid haf-
id af gjædsku Guds vors og Frelsarans Jesú
Krists sømu dýrmætu trú, 2. ad nád og frid-
ur margfaldist yfir ydur med þekkíngunni á
Gudi og Drottni vorum Jesú Kristi.
3. Hans guddómlegi máttur hefir af dýrd-
legri gjædsku sinni veitt oss med þekkíngu þess,
sem oss hefir kallad, allt þad sem medþarf til
(sannarlegs) lífs og gudrækni. 4. Af þessari
hans gjædsku eru oss gefin hin stærstu og dýr-
mætustu fyrirheiti, til þess ad þér þar vid
skyldud hluttakandi verda gudlegrar náttúru d)
og fordast heimsins girnda spillíngu. 5. Legg-
id þarfyrir alla stund þará, ad audsýna í yd-
varri trú dygdina, en í dygdinni þekkínguna,
6. en í þekkíngunni bindindid, en í bindindinu
þolinmædina, en í þolinmædinni gudræknina,
7. en í gudrækninni bródurelskuna, en í bród-
urelskunni elskuna (til allra); 8. því ef þess-
ar dygdir finnast hjá ydur, og í gnægd, munu
þær ekki láta vidurkénníngu Drottins vors Jesú
Krists vera ydjulausa og ávaxtarlausa í ydur.
9. Því hjá þeim sem þær eru ekki, hann er
blindur, byrgir fyrir augu sér, og e) gleymir

V. 7. Sálm. 37, 5. 55, 23. Matt. 6, 25. ff. V. 8. Lúk. 21, 36. 1 Tess. 5, 6. V. 9. Efes. 6, 11. 13, 16. Jak. 4, 7. V. 10. 2 Kor. 4, 17. sbr. Hebr. 10, 37. V. 12. a. Silvanus var medhjálpari Páls postula í Kristnibodinu. Post. g. b. 15, 22 16, 25. 18, 5. b. sbr. 2 Tess. 3, 17. V. 13. c. gétur og útlagst: Sú ásamt ydur útvalda (stallsystir). V. 3. 1 Pét. 2, 9. V. 4 d. þ. e. verda Gudi líkir. Jóh. 1, 12. 13. 14, 24. Efes. 4, 34. V. 9. sbr. 1 Jóh 2, 9. 11. e. sbr. Róm. 3, 25. Hebr. 9, 14. Sá sem ekki kappkostar dygdir, sýnir ad hann finnur ekki til þeirrar nádar, sem honum med Krists sendíngu er veitt, sem hreinsadi hann frá syndunum og frelsadi frá þeirra straffi.

hreinsun sinna fyrri synda. 10. Kappkostid þarfyrir, brædur mínir! ad stadfesta ydar køllun og útvalníngu, því ef þér þetta gjørid, munud þér ekki nokkrusinni a) hrasa; 11. því þá mun ydur veitast ljúfur inngángur í þad eilífa ríki Drottins vors og Frelsara Jesú Krists.

12. Þessvegna vil eg ekki letjast sífeldlega ad áminna ydur hérum, jafnvel þó ydur sé þetta kunnugt og stødugir standid í þeim sannleika sem hjá ydur er. 13. En eg álít þad rétt vera, ad eg veki ydur med minni áminníngu, á medan eg er í þessari tjaldbúd; 14. því eg veit ad þess er skamt ad bída, ad minni tjaldbúd verdi svift, eins og Drottinn vor Jesús Kristur hefir mér opinberad, 15. og vil því leggja kapp á, ad þér ætíd hafid þad, sem eptir mína burtfør, haldi þessu ydur í minni. 16. Ekki fylgdum vér spaklega uppspunnum frásøgum, þá vér kunngjørdum ydur um mátt og hérveru Drottins vors Jesú Krists, heldur vorum vér sjálfir b) sjónarvottar ad hans hátign; 17. því hann medtók af Gudi Fødur heidur og dýrd, þá þvílík raust barst honum frá þeirri hátignarfullu dýrd: „þessi er minn elskulegi Sonur á hvørjum eg hefi velþóknan“; 18. og þessa raust heyrdum vér koma frá himni þá vér vorum med honum á fjallinu helga. 19. Hérvid urdum vér vissari um spámannanna ord og þér breitid vel, ef þér géfid gaum ad því eins og ljósi, sem skýn á mirkum stad, þar til dagur ljómar og morgun stjarnan upprennur í ydrum hjørtum. 20. Umfram allt vitid, ad einginn spádómur Ritníngarinnar skilst af sjálfum sér; 21. því ad aldrei hefir nokkur spádómur framfluttur verid eptir mannsins vild, heldur tøludu þeir heiløgu Guds menn knúdir þar til af heiløgum Anda.

## 2. Kapituli.

Postulinn lýsir falskénnendunum og því straffi, á hvørju þeir eiga von.

1. En líka sem (ádur) voru e) falsspámenn medal lýdsins, þannig munu líka falskénnendur rísa upp ámedal ydar, er innsmeigja munu háskalegum villum, afneita Drottni, sem þá hefir keypt og yfir sig leida bráda gløtun, 2. og margir munu fylgja þeirra skémmilega athæfi, fyrir hvørra sakir íllt ord koma mun á d) veg sannleikans. 3. Af ágirnd munu þeir med tælandi kénníngum hafa ydur fyrir fé; þeirra fordæmíng, fyrir laungu (feld), mun ekki heldur kraptlaus verda og þeirra gløtun mun eigi e) dotta. 4. Því ef Gud þyrmdi ekki Englunum, sem syndgudu, heldur steypti þeim til helvítis og setti þá í mirkra fjøtur, svo ad þeir vardveittust til dómsins, 5. og ekki heldur þyrmdi þeim forna heimi, þegar hann lét vatnsflódid koma yfir heim hinna ógudlegu, en vardveitti Nóa, réttlætis prédikarann, sjálfann áttunda; 6. og lagdi borgirnar Sódóma og Gomorra í øsku, fordæmdi til eydileggíngar, og setti til fyrirmindar þeim sem sídar ógudlega breittu; 7. en frélsadi þann rádvanda Lot, er kvaldist af svívirdilegum lifnadi hinna þver-

---

V. 10. a. þ. e. syndga og þarvid missa ydur ætlada farsæld. Róm. 11, 11. V. 14. Jóh. 21, 18. 19. V. 16. sbr. 1 Kor. 1, 17. 2, 1. b. Jóh. 1. 14. Matt. 17, 1. fl. V. 17. Matt. 17, 5. V. 19. sbr. Sálm. 119. 105. 2 Kor. 4, 6. V. 21. þ. e. skilst ekki fyrr enn þad framkémur, sem spád er um. sbr. 1 Pét. 1, 10—12. (Gétur líka útlagst): Spádómarnir meiga ekki útleggjast, eptir gédþótta. V. 1. c. 5 Mós. 13, 1. Matt. 24, 11. 1 Tím. 4, 1. 1 Jóh. 2, 2. 2 Jóh. v. 7. 1 Pét, 1, 18. 19. V. 2. d. þ. e. Krists lærdóm. V. 3. e. þ. e. brádum koma yfir þá. V. 4. Júd. v. 6. V. 5, 1 Mós. b. 7, 7. 21—23. 8, 1. V. 6—9. 1 Mós. b. 19, 5—25.

brotnu, 8. því ad sá rádvandi, sem bjó á medal þeirra, kvaldist í sinni réttlátu sálu dag frá degi af þeim ódáda-verkum, er hann mátti sjá og heyra. 9. Þannig veit Drottinn ad hrífa þá gudhræddu úr ólukkunni, en geyma til dóms dagsins þá ránglátu til hegníngar, 10. einna helst þá, sem af saurlífum losta fylgja holdsins vild, og a) fyrirlíta (øll) yfirrád. Sem sifldjarfir sjálfbirgíngar svífast þeir ekki ad lasta tignarvøldin, 11. þared þó Englarnir, sem eru þeim ad makt og veldi meiri, eigi fella løstunar dóm gégn þeim hjá Drottni. 12. En eins og skinlaus dýr, er fylgja sínum girndum, sem fædd eru til ad veidast og fyrirfarast, lasta þessir þad b) sem þeir ekki þekkja og munu því tortínast vegna þeirra spillíngar, og ránglætis verdlaun bera úr býtum; 13. þeir hafa yndi af daglega ad lifa í óhófi, eru (svívirdilegir) blettir og vansi c), lifa svallsamlega af prettum sínum d), þegar þeir sitja í veislum med ydur; 14. augun hafa þeir ekki af hórkonunni og þeim verdur ekki frá syndinni haldid og fleka óstirkar sálir; hjarta þeirra er í ágirnd æft; þeir eru bølvunarinnar børn, 15. sem hafa yfirgéfid réttann veg, villast og fylgja vegi Balaams (sonar) Bósors, sem elskadi laun ránglætisins, 16. en fékk straff fyrir sína yfirtrodslu; málláust akneyti taladi manna máli og aptradi spámannsins fásinnu. 17. Þvílíkir eru brunnar án vatns og ský af hvirfilbili hrakid, hvørjum mirkursins dimma er ad eilífu geymd. 18. Því þegar þeir láta klíngja drambsøm hégóma ord, tæla þeir med holdlegum girndum og óterlegum lifnadi þá, sem fyrir skømmu hafa komist frá þeim, sem gánga í villu; 19. þeir boda þeim frelsi, þó þeir séu sjálfir spillíngarinnar þrælar, því af þeim sem nokkur er yfirunnin, þess ánaudugur þræll er hann. 20. En efad þeir, sem med þekkíng Drottins vors Frelsara Jesú Krists sloppnir voru frá heimsins saurugleika, flækja sig í honum (á ný) og sigrast, þá verdur þeirra hid sídara verra hinu fyrra; 21. því betra var þeim aldrei ad hafa þekkt veginn réttlætisins, heldur enn eptir þad þeir hafa þekkt hann, ad snúa aptur frá því heilaga løgmáli, sem þeim var géfid. 22. Á þvílíkum á heima sannmæli þetta: „hundurinn snýr aptur til sinnar spýu“, og „þveigid svín til leirveltunnar“.

## 3. Kapituli.

Talar um Krists tilkomu til dómsins, og minnir á ad menn skuli búa sig undir þann tíma.

1. Þetta er nú hid annad bréf, elskanlegir! í hvørjum eg hvet med áminníngu ydar hreinskilna hugskot, 2. ad minnast þeirra orda, er ádur hafa talad hinir heiløgu spámenn, og bodorda þeirra er vér, vors Drottins og Frelsara Postular høfum ydur géfid. 3. Fyrst og fremst skulud þér þad vita, ad á hinum sídustu døgum, munu koma hádsamir spottarar, er sínum egin girndum fylgja og segja: 4. hvad verdur úr fyrirheitinu um Krists tilkomu? því frá því fedurnir sofnudu, stendur allt vid

V. 10. a. þ. e. vilja hvørki Guds né manna løgum hlýda, heldur einúngis sínum girndum, sbr. Lúk. v. 7. f. V. 11, Júd. v. 9. V. 12. Júd. v. 10. b. nl. tignarvøldin. V. 13. Júd. v. 12. c. nl. í kristninni. d. Sumar handskriftir hafa hér: agapais fyrir apatais; útleggst: „lifa svallsamlega í þeirra kjærleiksmáltídum, þegar þeir sitja til bords med ydur í þeim“. sbr. 1 Kor. 11, 20. 21. V. 15. 16. 4 Mós. 22, 7—28. 31, 16. V. 17. Ordskv 25, 14. V. 18. Gal. 5, 13. 2, 17. V. 19. Jóh. 8, 32. 34. 36. Róm. 6, 16. 19—23. V. 20. 2 Pét. 1, 8. Hebr. 6, 4—6. V. 3. Matt. 24, 11. 1 Tím. 4. 1. 2 Tim. 3, 1. V. 4. Lúk. 21, 25—28. 31—33. 1 Tess. 5, 2. 3. sbr. Jer. 17, 15. Esek. 12, 22.

sama eins og (það var) í öndverðu sköpunarinnar. 5. Þeir sem þannig eru sinnaðir láta sér það hulið vera, að himnarnir forðum urðu, og jörðin af vatni og a) framleidd af vatni við Guðs (almættis) orð; 6. hvarfyrir sá heimur sem þá var, birgðist af vatni og eyðilagðist. 7. En þeir himnar sem nú eru og jörðin, geimast fyrir þess sama (almættis) orð eldinum, varðveitast til þess dags, á hvörjum óguðlegir menn dæmast og tortínast. 8. En þetta eitt (bið eg), mínir elskanlegu! að fyrir yður eigi dyljist, „að einn dagur er hjá Drottni sem þúsund ár, og þúsund ár, sem einn dagur". 9. Ekki seinkar Drottinn sínu fyrirheiti (þó sumir áliti þetta fyrir seinlæti); heldur hefir hann biðlund við oss, þareð hann ekki vill að nokkur fyrirfarist, heldur að allir komist til sinnis betrunar. 10. En dagur Drottins mun koma sem þjófur á nóttu, þá munu b) himnarnir forgánga með stórbrestum, frumefnin af eldi sundurleysast, og jörðin með því, sem í henni er, uppbrenna.

11. Þareð allt þetta ferst, hvílíkum mun yður þá byrja að vera? yður sem með heilagri breytni og guðrækilegu líferni, 12. með eptirlaungun væntið þessa Guðs dags, þá himnarnir munu í eldi sundur leysast og frumefnin af hita bráðna. 13. En eptir hans fyrirheiti væntum vér nýs himins og nýrrar jarðar, hvar réttlætið muni búa.

14. Þar fyrir, elskanlegir! með því þér egið á þvílíku von, þá stundið í friði, án flekka og líta, fyrir honum fundnir verða, 15. og álítið biðlund vors Drottins vera hjálpræðis meðal, eins og vor meðbróðir Páll hefir yður ritað, eptir þeirri speki sem honum er géfin, 16. sem sjá má af bréfum (hans), þar sem hann talar um þesshättar, í hvörjum sumt er þúngskilið, er fáfróðir og staðfestulausir rángsnúa, eins og öðru í Ritníngunum, þeim sjálfum til glötunar. 17. Elskanlegir! gjætið yðar þess vegna, með því þér vitið þetta fyrir fram, að þér látið eigi villu þverbrotinna manna draga yður með sér og leiða frá yðar staðuglyndi. 18. En vaxið í náð og þekkíngu Drottins vors Jesú Krists. Honum sé dýrðin, bæði nú og til eilífrar tíðar. Amen.

---

V. 5. 1 Mós. 1, 2. 6—9. Sálm. 136, 5. 6. a. Sálm. 24, 2. V. 6. 1 Mós. 7, 17. 21. V. 7 Es. 51, 6. 2 Tess. 1, 8. Hebr. 1, 11. 12. V. 8. Sálm. 90, 4. V. 9. Esaj 30, 18. Esek. 18, 23. Spek. 6, 11, 24. Róm. 2, 4. V. 10. Lúk. 12, 36. ff. Matt. 24, 27. Opinb. 16, 15. b. Lúk. 21, 33. Esaj. 51, 6. Sálm. 102, 27. V. 12. Sálm. 50, 3. 2 Tess. 1, 8. V. 13. Esaj. 65, 17. 66, 22. Opinb. 21, 1.

# S. Jóhannesar fyrsti Pistill.

## 1. Kapítuli.

Um samfélag vid Gud. Þad odlast med því, ad láta sig upplýsa af Krists lærdómi, og medkénna ad menn séu brotlegir.

1. Þad, sem var frá upphafi; þad, sem
vér høfum heyrt; þad, sem vér med vorum
augum høfum sjed; þad, sem vér høfum skod-
ad og vorar hendur hafa þreifad á áhrærandi
þad lífsins ord, 2. (því lífid er opinberad og
vér høfum sjed og vottum og bodum ydur
lífid þad eilífa, hvørt ed var hjá Fødurnum,
en birtist oss) hvad vér høfum sjed og heyrt,
3. þad bodum vér ydur, til þess ad þér líka
gjætud haft samfélag vid oss, en vort samfé-
lag er vid Fødurinn og hans Son Jesúm
Krist. 4. Og þetta skrifum vér ydur, svo ad
ydar føgnudur géti ordid fullkominn.

5. En þessi er bodskapurinn, hvørn vér
høfum heyrt af honum og bodum ydur: ad
Gud er ljós og ekkért mirkur er í honum.
6. En vér segjum, ad vér høfum samfélag vid
hann og gaungum þó í mirkrinu, þá ljúgum
vér og fylgjum ekki sannleikanum. 7. En ef
vér framgaungum í ljósinu a), eins og hann
er sjálfur í ljósinu, þá høfum vér samfélag
innbyrdis b) og blódid Jesú Krists, hans
Sonar, hreinsar oss af allri synd.

8. Ef vér segjum: vér høfum ekki synd,
þá svíkjum vér sjálfa oss og sannleikurinn er
ekki í oss. 9. En ef vér vidurkénnum vorar
syndir, þá er hann trúfastur og réttvís, svo
ad hann fyrirgéfur oss syndirnar og hreinsar
oss frá øllu ránglæti. 10. Ef vér segjum, ad
vér ekki høfum syndgad, gjørum vér hann ad
lygara og hans ord er ekki í oss.

## 2. Kapítuli.

Varar vid synd, en kénnir undireins, ad þó kristnir verdi brotlegir, sé Kristur þeirra árnadarmadur. Kénnir: ad á því sjáist hvørt þeir þekki rétt Gud og standi í samfélagi vid hann, ad þeir haldi hans bod, elski hann og naúngann, en ekki hid jardneska. Hvetur til ad fordast villulærdóm og vidhalda hjá sér kristilegu hugarfari.

1. Børn mín! þetta skrifa eg ydur til
þess, ad þér syndgid ekki, en ef einhvørr syndg-
ar, þá høfum vér árnadarmann hjá Fødurn-
um, Jesúm Krist hinn réttláta; 2. því hann
er forlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúng-
is fyrir vorar, heldur líka fyrir allrar verald-
arinnar syndir.

3. Og þar af vitum vér, ad vér þekkjum
hann, ef vér vardveitum hans ord. 4. Hvørr,
sem segir: eg þekki hann og vardveitir ekki
hans bodord, er lygari og í slíkum er ekki

---

V. 1. Jóh. 1, 1—3. 14. 2 Pét. 1, 16. sbr. Lúk. 24, 39. Jóh. 20, 27. nl. sem veitir líf, sérdeilis hér meint: andlegt líf og farsæld. V. 2. Jóh. 1, 4. Róm. 16, 26. Kól. 1, 26. 2 Tím. 1, 10. V. 3. Jóh. 17, 3. 21. V. 4. Jóh. 15, 11. 16, 24. 2 Jóh. v. 12. V. 5. Sálm. 104, 2. Jóh. 1, 9. 3, 12. V. 6. sbr. Kap. 2, 4. V. 7. a. þ. e. samkvæmt réttri þekkingu. b. nl. vér vid Gud og Gud vid oss. Post. gb. 20, 28. 1 Pét. 1, 19. Hebr. 9, 14. V. 8. 1 Kóng b. 8, 46. Ordskv. b. 20, 9. V. 9. Sálm. 32, 5. sbr. Es. 1, 16—18. V. 10. Sálm. 14, 3. Esaj 59, 2—15. Kap. 2, 4. V. 1. Róm. 8, 34. Hebr. 7, 25. 9, 24. V. 2. Róm. 3, 25. 2 Kor. 5, 18. Kól. 1, 20. Jóh. 1, 29. 3, 16. 4, 42. Hebr. 2, 9. V. 3. Jóh. 8, 55. V 4. 1 Jóh. 1, 6. 4, 20.

sannleikur. 5. En hvørr hans orð varðveitir, í honum er sannarlega elskan til Guðs fullkomin og af því þekkjum vér, að vér erum í honum; 6. hvørr, sem segist vera stöðuglega í honum a) honum ber að breita eins og hann b) breitti. 7. Elskanlegir! nýtt boðorð skrifa eg yður ekki, heldur gamalt boðorð, sem þér hafið haft frá upphafi, það gamla boðorð er sá lærdómur, hvørn þér heyrt hafið frá upphafi. 8. Aptur skrifa eg yður nýtt boðorð, sem er sannarlega í honum og í yður, því mirkrið er horfið og það sanna ljós er þegar farið að skína. 9. Hvørr, sem segir sig í ljósinu vera og hatar sinn bróður, sá er enn þá í mirkrinu. 10. Hvørr, sem elskar sinn bróður, sá er í ljósinu og honum verður ekkért til hrøsunar. 11. En hvørr sinn bróður hatar, sá er í mirkrinu og ráfar í mirkrinu og veit ekki hvørt hann fer, því mirkrið hefir blindað hans augu.

12. Eg skrifa yður, børn mín! vegna þess að yðar syndir eru yður fyrirgéfnar fyrir hans nafn. 13. Eg skrifa yður, feður! því að þér þekkið hann, sem er frá upphafi. Eg skrifa yður, únglíngar! því þér hafið sigrað þann vonda. 14. Eg skrifa yður, børn! því þér þekkið Føðurinn. Eg hefir (á undan) skrifað yður, feður! því þér þekkið þann, sem er frá upphafi. Eg hefir skrifað yður, ýngismenn! því þér eruð styrkvir, eruð stöðugir við lærdóm Guðs, og hafið sigrað hinn vonda. 15. Elskið ekki heiminn, ekki heldur þá hluti, sem í hónum eru; ef nokkur elskar heiminn, í honum er ekki kjærleiki Føðursins; 16. því allt það í heiminum er, sem er fýsn holdsins, fýsn augnanna og stærilátt liferni, það er ekki frá Føðurnum heldur frá heiminum; 17. en heimurinn fyrirferst og gyrnd til hans, en sá, sem breytir eptir Guðs vilja, varir að eilífu.

18. Børn mín! hinn síðasti tími er fyrir høndum og eins og þér hafið heyrt, að fjandmenn Krists komi, svo eru nú þegar margir fjandmenn Krists orðnir, hvar af vér vitum að það er hin síðasta stund. 19. Frá oss eru þeir útfarnir, en þeir voru ekki vorir, því ef þeir hefðu vorir verið, þá hefðu þeir stöðuglega verið með oss, en það varð að verða augljóst að allir væru ekki vorir. 20. En þér hafið smurníngu af þeim heilaga c) og vitið allt. 21. Ekki skrifaði eg yður vegna þess að þér þekkið ekki sannleikann, heldur af því þér þekkið hann og af því að engin lýgi á skildt við sannleikann. 22. Hvørr er (framar) lygari, enn sá sem neitar, að Jesús sé Kristur?

V. 5. Jóh. 13, 35. 14, 21. 23. V. 6. a. nl. Guði. b. nl: eins og Kristur. Að vera í einum, er: að elska hann og standa í nánu samfélagi við hann. Jóh. 15, 2—10. Kól. 2, 6. 7. sbr. 1 Pét. 2, 21. V. 7. þegar í G. T. (3 Mós. b. 19, 18.) var elska til náúngans boðin, en Gyðíngar skyldu það um elsku einúngis til landsmanna; en Jesús vildi að elskan skyldi ná til allra hjálparþurfandi. (Lúk. 10, 30—37.) og þetta boðorð var serhverjum með Kristni tøkunni boðið; (Tess. 4, 9). það var þessvegna í þessu tilliti: gamallt; en nýtt að því leiti Kristur innprentaði fyrstur almenna mannelsku. 2 Jóh. v. 5. Kap. 3, 11. V. 8. þ. e. Krists lærdómur rak burt vanþekkínguna. sbr. Jóh. 1, 9. Róm. 13, 12. V. 9. sbr. Kap. 3, 14. 4, 20. V. 12. Post. g. b. 10, 43. V. 13. Jóh. 1, 1. V. 14. Efes. 6, 10. V. 15. sbr. Jóh. 15, 19. Róm. 12, 2. V. 16. Lúk. 14, 18. fl. V. 17. 1 Kor. 7, 31. 1 Pét. 1, 24. Sálm. 15, 5. V. 18. sbr. v. 22. 4, 3. Matt. 24, 5. 24. Post. g. b. 20, 29. 2 Tess 2, 3. 2 Pét. 2, 1. 2 Jóh. v. 7. V. 19. Post. g. b. 20, 30. 1 Kor. 11, 19. V. 20. c. þér eruð ríkuglega útbúnir með heilags anda gáfum af Kristi, nefnil. þekkíngu og Guð elskandi hugarfari. 2. Pét. 1, 12. Efes. 1, 13. 14. 1. Jóh. 2, 24. V. 22. Kap. 4, 3. 2 Jóh. v. 7.

sá er fjandmadur Krists, sem afneitar Födurnum og
Syninum. 23. Hvörr, sem afneitar Synin-
um, hefir ekki heldur samfélag vid Födurinn.
Hvörr, sem vidurkénnir Soninn, hefir og sam-
félag vid Födurinn. 24. Haldid ydur stödug-
lega vid þad sem þér heyrt hafid frá upphafi,
en ef þér haldid ydur stöduglega vid þad sem
þér frá upphafi hafid heyrt, þá munud þér
einnig vid Soninn og Födurinn halda ydur
stöduglega, 25. og þetta er fyrirheitid, hvör-
ju hann hefir oss heitid, hid eilífa lífid. 26.
Þetta hefi eg skrifad ydur áhrærandi þá, sem
vilja afvega leida ydur. 27. En sú smurn-
íng, hvörja þér medtókud af honum, hún vid-
heldst hjá ydur, svo þér þurfid þess ekki med,
ad nokkur kénni ydur, heldur eins og smurn-
ingin frædir ydur um allt, og hún er sann-
leiki en eingin lýgi, svo munud þér verda hon-
um nákvæmlega sameinadir, eins og hún hefir
kénnt ydur.

28. Og nú, börn mín! verid innilega sam-
einadir honum, svo ad vér gétum, þegar hann
opinberast, haft djörfúng og blygdumst ekki fyr-
ir honum vid hans tilkomu.

## 3. Kapítuli.

Gud er réttlátur. Sá sem stundar réttlæti er Guds barn. Hvílíkur sómi og heill er þad, ad vera Guds barn! Sá sem vid þad kannast, fordast synd og elskar brædurnar, ad dæmi Krists, hvörn Gud gaf í daudann mönnum til frelsis. Þessi elska til Guds gefur oss trúartraust og rekur til hlýdni vid Gud.

Kap. 2. v. 29. Ef þér vitid þad, ad
hann er réttlátur, þá skulud þér einnig þad vita,
ad hvörr sem réttlæti stundar, hann er af hon-
um fæddur. 1. Sjáid hvílíkann kjærleika Fad-
irinn hefir oss audsýnt, ad vér skulum Guds börn
kallast; þess vegna kannast ekki heimurinn vid
oss, af því hann þekkir hann ekki. 2. Elskan-
legir! nú þegar erum vér Guds börn, en þad
er ennþá ekki opinbert hvad vér verda munum,
en þad vitum vér, ad þegar hann birtist, ad
vér munum honum líkir verda, því ad vér mun-
um sjá hann, eins og hann er. 3. Og hvörr,
sem hefir þessa von til hans hreinsar sjálfann
sig, eins og hann er hreinn. 4. Hvörr, sem
synd drýgir, drýgir líka lagabrot og syndin er
lagabrot; 5. en þér vitid, ad hann hefir birtst
til þess ad hann burttæki vorar syndir a) og
ad engin synd finnst hjá honum; 6. hvörr, sem
heldur sér stöduglega vid hann, syndgar ekki,
hvörr, sem syndgar, hefir hvörki séd hann né
þekkt. 7. Börn! látid engann villa ydur,
hvörr, sem réttvísina gjörir, er réttvís eins og
hann er réttvís. 8. Hvörr, sem syndina gjör-
ir er af djöflinum, því ad djöfullinn syndgar b)
frá upphafi; til þess birtist Guds Sonur, ad
hann nidurbrjóti djöfulsins verk. 9. Hvörr af
Gudi er gétinn, hann drýgir ekki synd, því
sædi hans er varanlegt í honum og hann gét-
ur ekki syndgad, því ad hann er af Gudi gétinn.

---

V. 23. Lúk. 12, 9. Jóh. 5. 23, 2 Tim. 2, 12. V. 24. v. 1. 2. 3. 7. Jóh. 14. 23. V. 25. 1 Tím. 4, 8. V. 27. sbr. v. 20. Jer. 31, 34. Jóh. 6, 45. V. 28. Jóh. 15, 4. 9. 1 Jóh. 3, 21. 4, 17. V. 29. Kap. 3, 7. 10. V. 1 Jóh. 1, 12. 16, 3. 17, 25. V. 2. Esa. 56, 5. 1 Kor. 15, 49. Kól 3, 4. Róm. 8, 29. Fil. 3, 21. 1 Kor. 13, 12. Matt. 5, 8. V. 3. 2 Kor. 7, 1. 1 Pét. 1, 15. 16. V. 4. Kap. 5, 17. V. 5. a. sbr. Esa. 53. 2 Kor. 5, 21. Jóh. 8, 46. Hebr. 5, 2. V. 6. Kap. 2, 4. 3, 9. 4, 8. 3 Jóh. v. 11 V. 7. Efes. 5. 6. 1 Jóh. 3, 10. V. 8. Matt. 13, 38. 39. Jóh. 8, 44. b. syngdar þ. e. syndgadi frá upphafi (Mós. 3. K.) og syndgar enn. V. 9. ad vera fæddur eda gétinn af Gudi, er ad hafa Gudi líkt hugarfar, og þessvegna vera honum velþóknanlegur. Kap. 3, 6. 5, 18. 1 Pét. 1, 23.

10. Þar af eru augljós Guds børn og børn djøf- ulsins; hvørr, sem ekki gjørir þad, sem er rétt, hann er ekki af Gudi, og hvørr, sem ekki elsk- ar sinn bródur.

11. Þetta er sú kénníng, sem þér hafid heyrt frá upphafi, ad vér skulum elska hvørr annann; 12. ekki sem Kain, er var af hin- um vonda og myrdti bródur sinn og fyrir hvad myrdti hann hann? Af því ad verk hans vóru vond, en bródur hans réttvís. 13. Undrist ekki, brædur mínir! þótt heimurinn hati ydur. 14. Vér vitum ad vér erum komnir úr daudanum til lífsins, af því vér elskudum brædurnar; hvørr, sem ekki elskar sinn bródur, hann er enn í daudanum. 15. Hvørr sinn bródur hatar, er manndrápari, en þér vitid ad enginn mann- drápari hefir eilífa lífid í sér varanda. 16. Af því þekkjum vér kjærleikann, ad hann a) gaf sitt líf út fyrir oss; eins erum vér skyldugir ad láta lífid fyrir brædurnar. 17. En sá sem hefir þessa heims audæfi og sjer sinn bródur lída neyd og apturlikur sínu hjarta fyrir hon- um, hvørnin gétur elskan til Guds verid stad- føst med honum.

18. Børn mín! elskum ekki med ordi og túngu, heldur med verki og í sannleika; 19. og af þessu þekkjum vér, ad vér adhyllustum sannleikann, ad vér gétum fridad vor hjørtu fyrir hans augliti; 20. svo ad þó vort hjarta fordæmi oss, er Gud samt meiri voru hjarta og þekkir allt b). 21. Elskanlegir! ef vort hjarta fordæmir oss ekki, þá høfum vér djørfúng til Guds 22. og þad, sem vér bidjum hann um, þad mun hann veita oss, af því vér høldum hans bodord og gjørum þad, sem er velþóknanlegt fyrir hans augliti. 23. Og þetta er hans bodord: ad vér trúum á nafn hans Sonar Jesú Krists og elskum hvørr annann samkvæmt því bodordi, sem hann hefir géfid oss; 24. en hvørr sá sem heldur hans bodord, hann er Gudi stadfastlega sameinadur og hann honum, og af því þekkjum vér, ad hann er stødugleg a í samfélagi vid oss, af þeim anda, sem hann hefir oss géfid.

## 4. Kapítuli.

*Jóhannes varar vid falskénnendum. Talar um Guds elsku til vor, og ad kristnum beri ad elska hann aptur, og sýna þessa elsku, í elsku til náúngans.*

1. Elskanlegir! trúid ekki sérhvørjum anda c), heldur reynid andana hvørt þeir séu frá Gudi, því ad margir falsspámenn hafa farid út um heiminn. 2. Af þessu skulud þér þekkja Guds Anda: hvørr andi, sem vidurkénnir ad Jesús

---

V. 10. Kap. 2, 29. sbr. 4, 8. V. 11. Kap. 2, 7. 24. Jóh. 13, 34. 15, 12. V. 12. 1 Mós. b. 4, 8. Hebr. 11, 4. Jóh. 3, 19. V. 13. Matt. 5, 11. Jóh. 15, 18. 19. 17, 14. V. 14. Jóh. 5, 24. 1 Jóh. 2, 11. 4, 12. 3 Mós. b. 19, 17. V. 15. nl. þegar hatrid er fyrst komid, géta menn ekki vitad nema ad þad loksins leidi til manndráps; þarfyrir talar Jesús og Postularnir þúnglega um allt þad, sem leidt gétur til haturs. Sjá Matt. 5, 21. ff. Gal. 5, 21. V. 16. a. n. Jesús. Sjá. Jóh. 3, 16. 15, 13. Róm. 5, 8. Efes. 5, 2. 25. V. 17. 5 Mós. b. 15, 7. Lúk. 3, 11. Jak. 2, 15. 1 Jóh. 4, 20. 5, 1. V. 18 Jak. 2, 15. 16. V. 20. b. nl. gétur réttvíslegar dæmt um oss, enn vér sjálfir. V. 21. Kap. 2, 28. 4, 17. V. 22. Sálm. 34, 16. 145, 18. Ordskv. b. 15, 29. 28, 9. Jer. 29, 12. 13. Matt. 7, 7. 18, 19. 21, 22. Jóh. 9, 31. 14, 13. V. 23. Jóh. 6, 29. 3 Mós. b. 19, 18. Jóh. 15, 12. V. 24. 1 Jóh. 4, 13. V. 1. c. nl. hvørjum sem géfur sig út fyrir ad vera spámadur, hafa gudlega andagipt. Jer. 14, 14. 23, 16 29, 9. Matt. 7, 15. 16. 24, 4. f. 23. Kól. 2, 18. 2 Pét. 2, 1. 1 Jóh. 2, 18. sbr 1 Kor. 14, 29. 1 Tess. 5, 21. Opinb. b. 2, 2. V. 2. sbr. 1 Kor. 1, 23. 12, 3. 1 Jóh. 2, 22 2 Jóh. v. 7.

Kristur hafi komid í holdinu, hann er frá Gudi.
3. En hvørr sá andi, sem ekki vidurkénnir, ad
Jesús Kristur hafi komid í holdinu a) hann er
ekki frá Gudi, heldur er hann Krists óvinur
(andi) um hvørn þér hafid heyrt, ad koma
muni og er nú þegar í heiminum. 4. Þér,
børn mín! erud af Gudi (fædd) og hafid þá
yfirunnid b), því ad sá er meiri, sem í ydur
er, enn hinn sem er í heiminum. 5. Þeir eru
af heiminum c) og þess vegna er þeirra kénn-
íng veraldleg og heimurinn hlustar (fúslega)
þar á. 6. Vér erum af Gudi; hvørr, sem
þekkir Gud, hlýdir oss; hvørr, sem ekki er af
Gudi, hlustar ekki á vora kénníngu; af þessu
þekkjum vér anda sannleikans og anda villu-
dómsins.

7. Elskanlegu! elskumst innbyrdis, því ad kjær-
leikurinn er frá Gudi, og hvørr sem elskar, er
af Gudi fæddur og þekkir Gud. 8. Hvørr,
sem ekki elskar, þekkir ekki Gud, því ad Gud
er kjærleikurinn; 9. í því opinberast elska Guds
til vor, ad Gud sendi sinn eingétinn Son í
heiminn, svo vér skyldum d) lifa fyrir hann. 10.
Í þessu er elskan innifalin, ekki ad vér elskud-
um Gud, heldur ad hann elskadi oss og sendi
sinn Son til forlíkunar fyrir vorar syndir.

11. Þér elskanlegir! fyrst Gud hefir svo elsk-
ad oss, þá ber oss ad elska hvørr annann. 12.
Enginn hefir nokkurntíma Gud sjed, ef vér elsk-
um hvørr annann, þá er Gud stødugleg a í oss
og hans kjærleiki er fullkomnadur í oss. 13.
Þar af þekkjum vér, ad vér erum stødugir í
honum og hann í oss, ad hann hefir gétid oss
af sínum anda; 14. og vér høfum sjed og vitn-
um, ad Fadirinn hefir útsendt Soninn, heims-
ins Frelsara. 15. Hvørr, sem vidurkénnir, ad
Jesús sé Guds Sonur, í honum er Gud stød-
uglega og hann í Gudi. 16. Og vér høfum
þekkt og treyst þeirri elsku, sem Gud hefir til
vor; Gud er kjærleikurinn, og hvørr, sem er
stødugur í kjærleikanum, sá er stødugur í Gudi
og Gud í honum. 17. Í því sýnir sig ad
elskan e) med oss er fullkomin, ad vér høfum
djørfúngu á degi dómsins, því ad líka sem hann
er, svo erum vér einnig í heimi þessum. 18.
Hrædsla er ekki í elskunni, heldur útrekur full-
komin elska hrædsluna, því ad hrædslan hefir
kvøl, en sá, sem hræddist er ekki fullkominn í
elskunni. 19. Vér elskum hann, því hann hef-
ir elskad oss fyrri. 20. Ef einhvørr segir:
eg elska Gud og hatar sinn bródur, sá er lyg-
ari; því hvørr, sem ekki elskar sinn bródur,
hvørn hann hefir sjed, hvørnin gétur sá elsk-
ad Gud, hvørn hann hefir ekki sjed? 21. og
þetta bodord høfum vér frá honum: ad sá, sem
elskar Gud, ad honum beri einnig ad elska sinn
bródur.

## 5. Kapituli.

*Sá, sem trúir ad Jesús sé Guds Son og elskar Gud, er af Gudi fæddur. Honum er ekki ørdugt ad*

---

V. 3. a. þ. e. íklæddur mannlegum líkama. 1 Tím. 3, 16. V. 4. b. ekki látid villukénnarana blekkja ydur. V. 5. c. þ. e. sinnadir eins og spiltur almenníngur, er ekki hugsar nema um hid jardneska. Jóh. 3, 31. 8, 23. 47. 15, 19. V. 6. Jóh. 8, 47. 10, 27. 3 Jóh. v. 11. V. 7. Kap, 5, 1. 2. Jóh. 8, 12. V 8. v. 16. Kap. 2, 4. V. 9. Róm. 5, 8. 8, 32. 1 Joh. 3, 16. d. lifa þ. e. verda sælir. V. 10. Jóh. 15, 16. Róm. 3, 24. 2 Kor. 5, 19. sbr. 1 Jóh. 2, 2. V. 11. Jóh. 15, 12, 13. V. 12. 2 Mós. 6. 33, 20, Jóh. 1, 18. V. 13. Kap. 3, 24. Jóh. 17, 21. V. 14. Kap. 1, 2. Jóh. 1, 14. Gal. 4, 4. V. 15 sbr. Kap. 5, 5. nl. Kristur. V. 17. e. nl. til Guds og manna. Kap. 3, 21. 1 Pét. 1, 15. V. 18. Róm. 8, 15. V. 19. v. 10. V. 20. Kap. 2, 4. 11. 3, 15. 17. V. 21. 3 Mós. 6. 19, 18. Matt. 22, 29. V. 21. 1 Jóh. 5, 1.

Halda Guds bod. Vatnid, blódid og andinn sann-
ar ad Jesús sé Guds Sonur. Sá sem þessum
vitnum trúir, hefir eilíft líf í sér búandi, treystir
Gudi og fordast syndir.

1. Hvørr, sem trúir ad Jesús sé Kristur, er
af Gudi fæddur, og hvørr, sem elskar Fødur-
inn, elskar einnig þann, sem er fæddur af hon-
um a). 2. Þar af þekkjum vér ad vér elskum
Guds børn, þegar vér elskum Gud og høld-
um hans bodord; 3. því þar í sýnir sig elsk-
an til Guds, ad vér høldum hans bodord og
bodordin hans verda þá ekki þúng; 4. því allt,
sem af Gudi er fædt, yfirvinnur heiminn og
vor trú er sigurinn, sem hefir yfirunnid heim-
inn. 5. En hvørr gétur yfirunnid heiminn
nema sá, sem trúir, ad Jesús sé Guds Sonur?

6. Þessi er sá, sem kom med vatni og
blódi Jesús Kristur, ekki med vatni einúngis,
heldur med vatni og blódi og andinn er sá,
sem vitnar, því ad andinn er sannleikurinn.
7. Því þeir eru þrír, sem vitna [í himnin-
um: Fadirinn, ordid og heilagur Andi og þess-
ir þrír eru eitt. 8. Og þeir eru þrír, sem vitna
á jørdunni b]: andinn, vatnid og blódid og
þessir þrír vitna eitt og hid sama c). 9. Ef
vér tøkum manna vitnisburd gildann, þá er
Guds vitnisburdur meiri, því þetta er vitnis-
burdur Guds, hvørn hann hefir vitnad um sinn
Son. 10. Hvørr, sem trúir á Guds Son,
hefir þenna vitnisburd í sjálfum sér, hvørr, sem
ekki trúir Gudi, hefir gjørt hann ad lygara,
af því hann hefir ekki trúad þeim vitnisburdi,
hvørn Gud hefir vitnad um sinn Son. 11.
Og þetta er vitnisburdurinn: ad Gud hefir
géfid oss eilíft líf og þetta líf er í hans Syni.
12. Sá, sem hefir Soninn, hefir lífid, sá, sem
ekki hefir Guds Son, hefir ekki lífid.

13. Þetta hefir eg skrifad ydur, sem trúid
á nafn Guds Sonar, svo þér vitid, ad þér
hafid eilíft líf og þér trúid á nafn Guds Son-
ar. 14. Og þetta er sú djørfúng, sem vér
høfum til hans, ad ef vér bidjum nokkurs ept-
ir hans vilja, þá heyrir hann oss. 15. Og
ef vér vitum ad hann bænheyrir oss, um þad
sem vér bidjum, þá vitum vér ad vér fáum
þær bænir, hvørra vér høfum hann bedid.
16. Ef nokkurr sjer sinn bródur synd drýgja,
en ekki til dauda, sá bidji og mun hann géfa
honum líf, þeim, sem ekki syndgar til dauda;
sé syndin til dauda, fyrir þeirri synd segi eg
ekki ad hann skuli bidja. 17. Allt ránglæti
er synd, en þad er til synd, sem ekki er til dauda.
18. Vér vitum, ad hvørr af Gudi er fæddur,
syndgar ekki, heldur sá, sem af Gudi er fædd-
ur, gjætir sín, og hinn vondi snertir hann ekki.

V. 1. a. Kap. 2, 22. 23. 4, 2, 15. Jóh. 1, 12. 13. fl. V. 3. Jóh. 14, 15. 21. 23. 15, 10. Matt. 11, 30. V. 4. Jóh. 16, 33. V. 5. 1 Kor. 15, 57. 1 Jóh. 4, 4. v. 15. V. 6. Jóh. 3, 5. 22. 4, 1. sbr. Jóh. 4, 14. Tít. 3, 5. 1 Pét. 3, 21. Kap. 1, 7. Jóh. 15, 26. 27. 16, 13. 14. Post. g. b. 10, 47. V. 7. Matt. 28, 19. 1 Kor. 12, 4—6. Jóh. 1, 1. V. 8. þau ord, sem eru innsirklud í 7da og 8da versi finnast hvørki í neinum gømlum handritum, ellstu útleggíngum, né hjá Kirkjufedrunum b. c. nl. ad Jesús sé Guds sonur. V. 9. Jóh. 8, 17. sbr. 5 Mós. b. 17, 6. 19, 15. Jóh. 8, 18. V. 10. Jóh. 3, 18. 33. V. 11. Jóh. 1, 4. 2 Tím. 1, 10. V. 12. Jóh. 3, 16. 36. 5, 24. V. 14. Kap. 3, 21. Sálm. 145, 18. Lúk. 11, 9. Jóh. 16, 23. 1 Jóh. 3, 22. V. 16. sbr. Jak. 5, 15. ff. 4 Mósb. 15, 30. Matt. 12, 31. 2 Pét. 2, 20. Hebr. 6, 4. 10, 26. V. 17. Kap. 3, 4. V. 18. Kap. 3, 9.

19. Vér vitum að vér erum af Guði, að all-
ur heimurinn liggur í því vonda. 20. Líka
vitum vér, að Guðs Sonur er kominn, og hef-
ir géfið oss þann skilníng, að vér þekkjum þann
sanna Guð, og erum í hinum sanna fyrir hans
Son Jesúm Krist. Þessi er sá sanni Guð og
það eilífa lífið. 21. Børn mín! varið yður
við afguðum.

# S. Jóhannesar annar Pistill.

## 1. Kapítuli.

Góðar óskir. Vottar gleði sína af því að børn þeirrar konu, til hvorrar bréfið er, halda fast við sannleikann; varar við raungum lærdómi; lofar komu sinni; ber kveðjur.

1. Öldúngurinn (óskar allra heilla) hinni
útvøldu a) Kyrju og børnum hennar, hvør eg
elska í sannleika, og ekki einúngis eg, heldur
einnig allir þeir, sem komnir eru til þekkíngar
á sannleikanum, 2. sakir sannleikans b), sem
vér høldum fast við, og munum gjøra til
eilífðar. 3. Náð, miskun, friður veri með
yður frá Guði Føður og Drottni Jesú Kristi,
Syni Føðursins í sannleika og elsku.

4. Næsta glaður varð eg, þegar eg fann
nokkur barna þinna er hlýðnast þeim sannleika,
sem samkvæmur er því boðorði, er vér með-
tekið høfum af Føðurnum. 5. Og nú bið eg
þig, Kyrja! ekki svo sem eg skrifi þér nýtt
boðorð, heldur það, er vér heyrt høfum frá
upphafi: að vér skulum elska hvørr annann.
6. Og þarí sýnir sig elskan, að vér breytum
eptir hans boðorðum. Þetta er boðorðið, er
þér hafið heyrt frá upphafi, til þess að þér
skuluð eptir því breyta. 7. Því margir villu-
menn eru farnir útum heiminn, sem ekki við-
urkénna að Jesús Kristur sé kominn í holdinu.
Þvílíkur er villumaður og fjandmaður Krists.
8. Gjætið að yður, að vér ekki töpum því,
sem vér høfum unnið, heldur að vér megum
meðtaka full laun. 9. Sérhvørr yfirtroðslu-
maður, og sá sem ekki stendur støðugur í Krists
lærdómi, heldur ekki Guði c), en sá, sem stend-
ur støðugur í Krists lærdómi, heldur bæði
Føðurnum og Syninum. 10. Ef einhvørr
kémur til yðar og kémur ekki með þenna lær-
dóm, þá hýsið hann ekki og heilsið honum
ekki. 11. Því hvørr, sem segir hann velkom-
inn, verður hluttakandi í hans vondu verkum.

12. Margt hefi eg að skrifa yður, ekki vil
eg eyða þar til pappír og bleki, því eg vona
að koma til yðar og tala munnlega við yður,
svo að vor gleði verði fullkomin. 13. Þér
heilsa børn systur þinnar, hinnar útvøldu.

V. 19. Gal. 1, 4. V. 20. Lúk. 24, 45. Jóh. 17, 3. sbr. Róm. 9, 5. 1 Tím. 3, 16. Hebr. 1, 8. Jóh. 11, 25. 26. V. 21. 2 Mós. b. 20, 3. V. 1. a. þ. e. réttkristnu konu. V. 2. b. þ. e. vegna þeirrar elsku sem vér høfum á Krists sanna lærdómi. V. 5. Jóh. 13, 34. 15, 12. 1 Jóh. 2, 7. 3, 11. 23. V. 6. 1 Jóh. 5, 3. Jóh. 15, 10. 1 Jóh. 2, 24. V. 7. Matt. 24, 5. 24. 2 Pét. 2, 1. 1 Jóh. 2, 18. 22. V. 8. Gal. 3, 3. 4. 1 Tess. 3, 5. V. 9. c. þ. e. heldur ekki hans vinfeingi. V. 10. sbr. Róm. 16, 17. 1 Kor. 5, 11. Tít. 3, 10. V. 11. 1 Tím. 5, 22.

# S. Jóhannesar Þridji Pistill.

## 1. Kapítuli.

*Ávarpar Gajus. Gledur sig yfir hans tru og kjærleiks verkum. Kvartar yfir vondsku Díótrefis. Hrósar Demetriusar gudrækni. Bodar komu sína. Bidur ad heilsa og bera kvedjur.*

1. Öldúngurinn (skrifar) þeim elskulega
Gajusi, hvørn eg einlæglega elska. 2. Elsku-
legi! umfram allt bid eg ad þér vegni vel í
øllu tilliti, og ad þér heilsist vel, eins og þinni
sálu vel vegnar. 3. Því eg vard harla glad-
ur, þegar bræburnir komu og vitnudu um þína
elsku til sannleikans; og hvørsu þú breitir sam-
kvæmt sannleikans lærdómi. 4. Eg hefi enga
stærri gledi enn þá, ad heyra ad mín børn
breyta eptir sannleikanum. 5. Minn elskulegi!
þú breytir eins og trúadnr í því, sem þú vinn-
ur fyrir bræburnar, og þad þér ókénnda. 6.
Þessir hafa vitnad, fyrir søfnudinum um elsku-
semi þína. Þú munt (og) gjøra vel vid þá
og beina ferd þeirra verduglega fyrir Guds
sakir; 7. því fyrir hans nafns sakir eru þeir
af stad farnir a), og hafa vid engu tekid hjá
heidíngjum; 8. þar fyrir ber oss ad taka því-
líka menn ad oss, svo ad vér adstodum
sannleikann.
9. Eg hefi skrifad søfnudinum til, en Díótre-
fes, sem vill vera fremstur medal þeirra, tekur
oss ekki (vel); 10. þar fyrir, þegar eg kém,
vil eg minna hann á þau verk, er hann vinn-
ur, med því med vondum ordum, ad ófrægja
oss, og hann lætur sér ekki þad nægja, ad taka
ekki sjálfur á móti bræbrunum, heldur bannar
hann þad ødrum, er þad vilja gjøra, og rek-
ur þá út úr søfnudinum. 11. Minn elskulegi!
breyttu ekki eptir því sem íllt er, heldur eptir
því, sem gott er. Sá sem gott gjørir er af Gudi,
en hvørr sá, sem íllt gjørir, hefir ekki séd Gud.
12. Demetríus hefir gódann vitnisburd af øll-
um og af sannleikanum sjálfum; vér vitnum einn-
ig hid sama ad vor vitnisburdur er sannur.
13. Eg hefi margt ad skrifa, en eg vil ekki
skrifa þér med bleki og penna, 14. því eg vænti
brádum ad sjá þig, og munum vid þá talast
vid munnlega. 15. Fridur sé med þér! Vin-
irnir bidja ad heilsa þér. Heilsa þú vinunum
med nafni.

V. 1. Róm. 16, 23. V. 4. v. 3. Sálm. 36, 3. V. 7. a. Þ. e. í kristindómsins erindum, sbr. Matt. 10, 8. V. 10. sbr. 1 Tess. 2, 16. V. 11. Sálm. 37, 27. Esa. 1, 16. 1 Pét. 3, 11. Jóh. 8, 47. 1 Jóh. 3, 6. V. 12. Jóh. 19, 35.

# S. Júdasar Pistill.

## 1. Kapituli.

*Postulinn varar vid fals-kénnendum og ógudlegum. Kénnir hvernig breyta skal vid slíka.*

1. Júdas, Jesú Krists þjón, bródir Jakobs, heilsar þeim kølludu, sem í Gudi Fødur helgadir í Jesú Kristi vardveittir eru: 2. miskunsemi, fridur og kjærleiki margfaldist yfir ydur.

3. Mínir elskanlegir! þared mér er ríkt í huga ad skrifa ydur, svo álít eg naudsynlegt ad skrifa ydur um sameginleg sáluhjálpar efni og uppørfa til ad berjast fyrir þá trú, sem heiløgum hefir einusinni verid kénnd; 4. því inní søfnudinn hafa nokkrir lædst, hvørjir fyrir laungu eru þvílíku straffi ætladir, ógudlegir menn, sem vanbrúka nád Guds vors til stjórnlauss lífernis og afneita vorum einasta alvalda, og Drottni Jesú Kristi. 5. Vil eg því minna ydur á, þótt ydur sé þad nógsamlega kunnugt, ad eptir þad ad Drottinn hafdi frelsad fólkid frá Egyptalandi, þá hann tortíndi þará eptir þeim sem voru vantrúadir, 6. og Englana, sem ekki gjættu sinnar upphaflegu tignar, heldur yfirgáfu sinn bústad, hefir hann í svartmyrkri geimt í eilífum fjøtrum til þess mikla dags. 7. Sømuleidis eru Sódóma og Gomorra og kríngum liggjandi borgir, sem drýgdu saurlifnad á líkann hátt og þessir, og gengu eptir annarlegu holdi, settar til eptirdæmis og liggja undir eilífum eldi. 8. Eins breyta þessir draumvilltu, þeir saurga líkamann, fyrirlíta þá sem í vøldum sitja og lasta tignarvøldin. 9. En høfudengillinn Mikkael, þá hann þráttadi vid djøfulinn um líkama Mósis, vogadi þó ekki ad leggja smánarlegann dóm á hann, heldur sagdi: Drottinn straffi þig. 10. En þessir lasta þad, sem þeir þekkja ekki; þarámót þad, sem þeir, eins og skynlaus dýr, þekkja af náttúrlegri fýsn, brúka þeir sér til fordjørfunar. 11. Vei þeim, því þeir gánga á vegi Kains, hrapa í villu Balaams fyrir ávinníngs sakir, og tortínast vegna þverúdar þeirra eins og Kóre. 12. Þessir eru (hættuleg) skér í ydar kjærleiks veitslum, med ósvífni lifa þeir í óhófi þá þeir matast med ydur, og ala sjálfa sig; þeir eru vatnslaus ský, sem rekast fyrir vindum, visnud tré, ávaxtarlaus, útdaud, upprætt; 13. offalegar hafsbylgjur, sem freyda egin skømmum, reikandi stjørnur; hvørjum dimma mirkursins er geymd til eilífdar. 14. Um þessa spádi og Enok, sjøundi madur frá Adam, segjandi: sjá! Drottinn kémur med sínum heiløgu þúsundum, 15. til ad halda dóm yfir øllum, og til ad sanna alla ógudlega þeirra ámedal seka í øllum þeim ógudlegu verkum, sem þeir hafa drýgt, og í øllum þeim lastmælum, sem þeir ógudlegu syndarar hafa

---

V. 1. Lúk. 6, 16. Post. gb. 1, 13. Jóh. 17, 11. 1 Pét. 1, 5. V. 3. Fil. 1, 27. 1 Tím. 1, 18. 6, 12. V. 4. Tít. 1, 16. 2, 12. 2 Pét. 2, 1. sbr. Róm. 9, 15—24. V. 5. 4 Mós. b. 14, 29—35. 26, 64. 65. 1 Kor. 10, 5. V. 6. 2 Pét. 2, 4. Jóh. 8, 44. V. 7. 1 Mós. b. 19, 24. 25. 2 Pét. 2, 6. V. 8. 2 Pét. 2, 10. V. 9. 2 Pét. 2, 11. Sakk. 3, 2. V. 11. 1 Jóh. 3, 12. 2 Pét. 2, 15. 16. 4 Mós. b. 22, 7. 21. V. 12. 2 Pét. 2, 13. 17. Ordskv. b. 25, 14. V. 13. Esa. 57, 18. V. 14. 1 Mós. b. 5, 22—24. Dan. 7, 10. Post. gb. 1, 11. 2 Tess. 1, 7 — 10. Opinb. b. 1, 7. V. 15. Matt. 12, 36. 25, 31. ff.

talad gégn honum. 16. Þessir eru møgl-
samir, adfinníngasamir um sín kjør, lifa
eptir eigin girndum, munnur þeirra mælir of-
stopa ord, þeir meta menn eptir hagnadi.
17. En þér elskanlegir! minnist þeirra orda,
sem ádur hafa tølud verid af Postulunum
Drottins vors Jesú Krists. 18. Því þeir
søgdu ydur, ad á sídasta tímanum mundu
koma spottarar, sem fara eptir þeirra egin ó-
gudlegu girndum. 19. Þessir eru þeir, sem gjøra
sig fráskila, holdlegir, sem ekki hafa andann.

20. En þér, elskanlegir! uppbyggid ydur
sjálfa af ydar heiløgustu trú, bidjid í heiløgum
Anda; 21. vardveitid ydur sjálfa í kjærleika
Guds og væntid miskunar Drottins vors
Jesú Krists til eilífs lífs. 22. Aumkvid ydur
yfir suma med greinarmun, 23. en frelsid suma
med ótta og kippid þeim úr eldinum, en svo,
ad þér varist jafnvel kyrtilinn, sem flekkadur
er af holdinu.

24. Þeim, sem kann ad vardveita ydur
frá hrøsun og láta ydur mæta fyrir sínni
dýrd óflekkada í føgnudi, 25. einum Gudi,
vorum Frelsara fyrir Jesúm Krist vorn Drott-
inn, sé dýrd og hátign, kraptur og veldi, frá
allri eilífd, nú, og um allar aldir. Amen!

# S. Jóhannesar Opinberunar Bók.

## 1. Kapítuli.

*Inngángurinn. Jóhannesi er skipad ad skrifa þeim sjø søfnudum í Asíu sína vitrun.*

1. Opinberan Jesús Krists, hvørja Gud
hefir géfid honum til ad sýna sínum þjónum
þad, sem ské skal innan skamms og hann sendi
sinn Engil og lét hann sýna þad Jóhannesi,
sínum þjóni, 2. hvørr ed kunngjørdi Guds ord
og vitnisburdinn um Jesúm Krist, eins og hann
vissi. 3. a) Sæll er sá, sem les þessi spá-
dóms ord, og þeir, sem heyra þau og geyma
þad, sem þar í er skrifad; því b) tíminn er
nálægur. 4. Jóhannes heilsar þeim c) sjø søfn-
udum í Asíu: d) nád sé med ydur og fridur e) af
þeim, sem er, og þeim, sem var, og þeim,
sem koma mun, og af þeim sjø øndum, sem eru
frammi fyrir hans hásæti, f) 5. og af Jesú Kristi,
þeim trúa vottinum, g) frumburdi framlidinna h),
høfdíngja jardarinnar Konúnga, honum, sem i)
elskadi oss og k) þvodi oss af vorum syndum med
sínu blódi, 6. og hefir gjørt oss ad Konúnga-
dómi, ad kennimønnum síns Guds og Fødurs;
honum sé dýrd og kraptur um aldir alda,
Amen! 7. Sjá! hann kémur l) í skýunum, og
hvørt auga m) mun sjá hann, eins þeir, sem hann
gégnum-stúngu, og allar kynkvíslir jardarinnar
munu fyrir honum skélfast; já, vissulega mun

V. 16. Tit. 3, 3. 2 Pét. 2, 18. V. 18 Post. gb. 20, 29. 1 Tím. 4, 1. 4, 3. 2 Pét. 2, 1. 3, 3. V. 19. Ordskv. b. 18, 1. V. 21. 1 Kor. 1, 4—7. V. 1. v. 19. Kap. 22. 6. 7. V. 2. Kap. 6, 9. 1 Jóh. 1, 1. V. 3. a. Kap. 22, 7. b. Róm. 13, 11. 1 Pét. 4, 7. Jak. 5, 8. Opinb. b. 22, 10. V. 4. c. v. 11. d. Róm. 1, 7. e. 2 Mós. b. 3. 14. Opinb. b. 1, 8. 4, 8. 11, 17. 16, 5. Hebr. 13, 8. f. 3, 1. V. 5. g. Kól. 1, 18. 1 Kor. 15, 20. h. Opinb. b. 17. 14. 19, 16. i. Gal. 2, 20. Opin. b. 5, 8. k. 1 Pét. 1, 18. 19. 1 Jóh. 1, 7. V. 6. Esa. 61, 6. 1 Pét. 2, 5. 9. Opinb. b, 5, 10. V. 7. l. Dan. 7, 13. Post. gb. 1, 11. m. Jóh. 19, 37.

svo verda. 8. Eg em A og O, segir Gud
Drottinn, sá, sem er og var og koma mun, sá
alvaldi.

9. Eg Jóhannes, ydar bródir og ásamt yd-
ur hluttakandi í þreyngíngu, í ríki og eptirvænt-
íng Jesú Krists, eg var á þeirri eyú, sem kall-
ast Patmus, fyrir sakir Guds ords og vitnis-
burdar Jesú Krists. 10. Eg a) var í anda á
Drottins degi, og b) heyrdi ábak mér mikla raustu,
sem lúdur gylli; hún sagdi: 11. skrifa þú í
bók þad, sem þú sjer, og send þad þeim sjø
søfnudum í Efesus, Smyrna, Pergamus, Tya-
tíra, Sardes, Filadelfíu og Laódíseu. 12. Eg
snéri mér vid, til ad vita hvada raust þad væri,
sem vid mig taladi, og sem eg snéri mér vid,
sá eg sjø ljósa-stikur gull-legar, 13. og medal
þeirra sjø c) ljósa-stikna einhvørn líkan d) manns
syni; hann var í skósídu klædi, og spennt gull-
belti um brínguna; 14. e) høfud hans og hár
var hvitt, eins og hvít ull, eins og mjøll; hans
f) augu vóru sem elds logi; 15. hans fætur, sem
glóandi látún í elds-ofni; hans málrómur sem
nidur margra vatnsfalla. 16. Hann hafdi g) sjø
stjørnur í sinni hægri hendi, og af hans munni
gékk h) tvíeggjad sverd biturt; af hans i) andliti
ljómadi sem af sólu, þá hún skín í krapti sín-
um. 17. En þá eg sá hann, féll eg fyrir
fætur honúm, sem daudur væri; hann lagdi þá
sína hægri hønd yfir mig, og sagdi: 18. hrædstu
ekki, eg em hinn fyrsti og sídasti og sá lifandi;
eg dó, en sjá, eg lifi um aldir alda; og eg k)
hefi lykla daudans og undirheima. 19. Skrifa
því hvad þú sjed hefir, bædi þad, sem er, og
hvad hér eptir skal ské. 20. Þessi er leynd-
ardómurinn þeirra sjø stjarna, sem þú hefir sjed
í minni hægri hendi, og þeirra sjø gull-legu
ljósastikna: þær sjø stjørnur eru Englar þeirra
sjø safnada, en þær sjø ljósa-stikur eru þeir
sjø safnadir.

## 2. Kapítuli.

*Hvad Jóhannes á ad skrifa søfnudinum í Efesus, í Smyrna, í Pergamus, í Týatíru.*

1. Skrifa þú Engli safnadarins í Efesus:
þetta segir sá, sem heldur á þeim sjø stjørnum
í sinni hægri hendi og gengur medal þeirra sjø
gullegu ljósa-stikna. 2. Eg þekki þin l) verk,
þína mædu og þolgjædi, og veit, ad þú ekki
lídur þá, sem vondir eru; þú hefir m) prófad
þá, sem hafa þókst vera Postular, en vóru þad
þó ekki, og hefir fundid, ad þeir vóru lygar-
ar. 3. Þú hefir samt haft þolinmædi og um-
borid þá mín vegna og ekki þreyttst. 4. En
þad þyki mér ad þér, ad þú hefir sleppt þín-
um fyrri kjærleika. 5. Gádu því ad, hvørju
þú hefir sleppt, sjádu ad þér og breyttu eins
og fyrrum; ellegar skal eg brádum koma, og
þoka þinni ljósastiku úr stad, nema þú sjáir
ad þér. 6. En þess máttu þó njóta, ad þú
hatar athæfi þeirra Nikolaita, eins og eg. 7.
Hvørr, sem n) eyru hefir, hann heyri hvad
andinn segir søfnudunum: þeim, o) sem sigrar,
mun eg géfa ad eta p) af lífsins tré, því er
stendur í aldingardi míns Guds.

---

V. 8. Kap. 22, 13. V. 9. Róm. 8, 17. V. 10. a. Kap. 4, 2. b. Kap. 10, 3. 8. V. 12. 2 Mós. b. 25, 37. V. 13. c. Kap. 2, 1. d. Esa. 1, 26. Dan. 7, 13. Opinb. b. 15, 6. V. 14. e. Dan. 7, 9. f. Kap. 2, 18. 19, 12. V. 15. Kap. 14, 2. 19, 6. V. 16. g. Kap. 1, 20. h. Esa. 49, 2. Ef. 6, 17. Hebr. 4, 12. i. Matt. 17, 2. V. 18. k. Sálm. 68, 21. V. 20. Kap. 2, 1. V. 1. Kap. 1, 13. 16. 20. V. 2. l. 1 Tess. 1, 3. Opinb. b. 2, 9. 13. 19. m. 1 Jóh. 4, 1. 2. V. 3. Hebr. 10, 36. V. 4. v. 14. 20. V. 5. Mark. 1, 15. V 6. sbr. v. 14. 15. V. 7. n. Matt. 11, 15. Opinb. b. 3, 6. o. v. 17. 26. p. 1 Mós. b. 2, 9. Opinb. b. 22, 2.

8. Skrifa þú Engli safnadarins í Smyrna: þetta segir sá a) fyrsti og sídasti, sá sem dó og b) endurlifnadi, 9. eg þekki c) þín verk, þraung þína og fátækt (en þú ert samt d) ríkur) og lastmæli þeirra gégn þér, sem kalla sig e) Gydínga, en eru þad þó ekki, heldur søfnudur Satans. 10. f) Kvíddu ekki því mótlæti, sem þú átt fyrir høndum: sjá, djøfullinn mun varpa nokkrum ydar í fángélsi til ad freistast, og þér munud þreyngíngu hafa í 10 daga. g) Vertu trúr allt til daudans, þá skal eg géfa þér h) lífsins kórónu. 11. Hvørr, sem i) eyru hefir, hann heyri hvad andinn segir søfnudunum: þeim, sem sigrar, honum skal sá k) annar daudi ekkért granda.

12. Skrifa þú Engli safnadarins í Pérgamus: þetta segir sá, sem hefir þad tvíeggjada bitra sverd: 13. eg þekki þín verk, og veit, ad þú býr þar, sem l) Satans hásæti er. Samt m) heldur þú stødugt vid mitt nafn og hefir ekki afneitad minni trú, jafnvel ekki á þeim døgum, er minn n) trúfasti vottur Antípas var uppi, hvør ed líflátinn var hjá ydur, þar, sem Satan býr. 14. Þó þyki mér fátt eitt ad þér, ad nokkrir eru þeir hjá þér, sem halda vid kénníngu Balaams, þess er kénndi Balak ad tæla Ísraelsmenn til ad eta afgudafórnir og drýgja saurlifnad; 15. allt eins hefir þú nokkra hjá þér, sem halda vid kénníngu Nikolaitanna. 16. o) Sjádu því ad þér, ellegar mun eg brádum koma, og p) vega ad þeim med q) sverdi míns munns. 17. Hvørr, r) sem eyru hefir, heyri hvad andinn segir søfnudunum: þeim, sem s) sigrar, skal eg géfa ad eta af því t) hulda himnabraudi; eg skal géfa honum hvítann hlut med áskrifudu u) nýu nafni, sem enginn þekkir, nema sá, er vidtekur.

18. Skrifa þú Engli safnadarins í Týatíru: þetta segir Guds Sonur, hvørs augu eru sem eldslogi, og hvørs fætur eru sem látún. 19. Eg þekki þín verk, þína elsku, trúmennsku og þjónustu og þitt stødugllyndi; þín sídari gódverk eru fleiri en hin fyrri. 20. En þad þykir mér ad þér, ad þú leyfir Jessabel konu þinni, sem þykist vera spákona og afvegaleidir mína þjóna med sínum kénníngum, ad drýgja saurlifnad og eta afguda fórnir. 21. Eg héfi géfid henni frest til ad sjá ad sér, en hún vill þó ekki láta af sínum saurlifnadi. 22. Sjá! eg mun kasta henni í rekkju, og þeim, sem hórast med henni, í miklar þreyngíngar, ef þeir bæta ekki rád sitt. 23. Børnum hennar skal eg med dauda tortýna, svo allir søfnudir viti, ad eg em sá, v) sem ransaka hjørtun og nýrun; og sérhvørjum ydar x) skal eg gjalda eptir hans verkum. 24. En ydur segi eg, hinum ødrum í Týatíru, sem ekki haldid vid þessa kénníngu, og ekki hafid kannad djúp Satans, sem þeir svo kalla; uppá ydur skal eg enga adra byrdi leggja, 25. en haldid því, sem þér hafid, þar

V. 8. a. Esa. 41, 4. 48, 12. Opinb. b. 1, 11. b. v. 18. V. 9. c. v. 2. d. Kap. 3, 17. e. þ. e. Guds fólk. Róm. 2, 17. Jóh. 8, 39. V. 10. f. Matt. 10, 28. g. Matt. 10, 22. Hebr. 3, 14. Opinb. b. 3, 11. h. 1 Kor. 9. 25. 2 Tím. 4, 7. 8. Jak. 1, 12. V. 11. i. Matt. 11, 15. 13, 9. k. Kap. 20, 14. 21, 8. V. 12. Kap. 1, 16. Hebr. 4, 12. V. 13. l. Kap. 13, 2. m. Kap. 3. 8. n. Kap. 1. 5. V. 14. 4 Mós. 22. 5. 25, 2. 31, 16. Júd v. 11. V. 15. v. 6. V. 16. o. Matt. 3, 2. p. Kap. 19. 15. 21. q. Esa. 11, 4. 49, 2. 2 Tess. 2, 8. Opinb. b. 1, 16. V. 17. r. v. 7. 11. s. v. 26. t. Jóh. 6, 50. 51. u. Opb. b. 3, 12. V. 18. Kap. 1, 14. 15. V. 19. v. 2. 9. 13. V. 20. Post. g. b. 15, 20. 1 Kor. 10, 19. 20. V. 21. Spek. b. 10, 12. Róm. 2, 4. V. 22. Kap. 18, 9. V. 23. v. Sálm. 7, 10. Jer. 11, 20. Jóh. 2, 24. 25. x. Sálm. 62, 13. Róm. 2, 6. V. 25. Kap. 3, 11.

til eg kém. 26. Þeim, sem a) sigrar og held-
ur til enda mín bodord, skal b) eg géfa vald
yfir heidnum þjódum; 27. hann skal c) ríkja
yfir þeim med járnsprota, og þeir skulu sund-
urmolast eins og leirkér; þvílíkt vald d) fékk eg
líka hjá mínum Fødur. 28. Og eg skal géfa
honum morgunstjørnuna. 29. Hvørr, sem eyra
hefir, hann heyri hvad andinn segir søfnudunum.

## 3. Kapítuli.

*Hvad Jóhannes á ad skrifa søfnudinum í Sardes, í Filadelfíu, í Laódíseu,*

1. Skrifa þú Engli safnadarins í Sardes:
þetta segir sá, sem e) hefir þá sjø anda Guds
og f) þær sjø stjørnur. Eg þekki háttalag þitt,
ad þú lifir ad nafninu, en ert þó daudur. 2.
Vaknadu og styrk hid annad, sem ætlar ad
deya; því eg hefi fundid margt ábótavant í
fari þínu fyrir Guds augliti. 3. Ryfjadu upp
fyrir þér, hvad þú hefir numid og heyrt, vard-
veit þad og g) bæt rád þitt; því ef þú vakir
ekki, mun h) eg koma ad þér eins og þjófur,
svo þú skalt ekki vita, á hvørri stundu eg muni
koma yfir þig. 4. Þó eru fáeinir menn hjá
þér í Sardes, sem ekki hafa saurgad sín klædi;
þeir skulu vera hjá mér í hvítum búníngi, því
þeir eru þess maklegir. 5. Sá, sem sigrar,
hann skal skrýdast hvítum búníngi, og hans nafn
skal eg ekki afmá af i) lífs-bókinni; eg skal
k) kannast vid hans nafn fyrir mínum Fød-
ur og fyrir hans Englum. 6. Sá, sem eyra
hefir, hann heyri hvad andinn segir søfnudunum.

7. Skrifa þú Engli safnadarins í Filadel-
fíu: þetta segir sá heilagi, sá sanni, sem hefir
lykil Davíds l), hann, sem lýkur svo upp, ad
enginn m) læsir aptur, og læsir svo aptur, ad
enginn lýkur upp. 8. Eg þekki þín verk; sjá!
eg hefi lokid svo upp dyrunum fyrir þér, ad
enginn gétur lokad þeim aptur; því þú hefir
lítinn mátt, en hefir þó haldid mín ord og
ekki afneitad mér. 9. Sjá! eg skal láta nokk-
ra af Satans søfnudi, sem segjast vera Guds
fólk, en eru þad þó ekki, heldur ljúga, eg skal
láta þá koma og kasta sér fløtum fyrir fætur
þér, svo þeir viti, ad eg elska þig. 10. Fyrir
þad ad þú hefir vardveitt mitt bodord um stød-
uglyndi, skal eg líka vardveita þig frá þeim
freistíngar tíma, sem koma mun yfir allann
heim til ad reyna jardarinnar innbúa. 11.
Eg n) kém brádum; o) haldtú fast því, sem
þú hefir, svo enginn taki frá þér þína p) kó-
rónu. 12. Þann, sem sigrar, skal eg gjøra
ad máttartré í q) musteri míns Guds, og hann
skal þadan aldrei út fara; eg skal skrifa á hann
nafn míns Guds og r) nafn hinnar nýu Je-
rúsalem, borgar míns Guds, þeirrar er kém-
ur af himni ofan frá mínum Gudi, og mitt
nýa nafn. 13. Hvørr, sem eyra hefir, hann
heyri hvad andinn segir søfnudunum.

14. Skrifa þú Engli safnadarins í Laódíseu:
þetta segir sá óbrigduli, sá trúi og sanni vott-
urinn, upphaf Guds sköpunar. 15. Eg þekki
háttalag þitt, ad þú ert hvørki kaldur né heit-
ur; betra væri, ad þú værir annadhvørt kaldur

---

V. 26. a. v. 7. 11. 17. b. Sálm. 2, 8. 1 Kor. 6, 2. V. 27. c. Kap. 12, 5. 19, 15. d. Kap. 3, 21. Lúk. 22, 29. V. 28. 2 Pét. 1, 19. Opinb. b. 22, 16. V. 29. Kap. 3, 6. V. 1. e. Kap. 1, 4. 4, 5. f. Kap. 1, 16. Kap. 2, 9. V. 2. 1 Kor. 15, 34. Ef. 5, 14. V. 3. g. Kap. 2, 5. 3, 19. h. Matt. 24, 43. 1 Tess. 5, 2. Opinb. b. 16, 15. V. 4. Kap. 4, 4. 6, 11. V. 5. i. Fil. 4, 3. Lúk 12, 8. Opinb. b. 20, 12. k. Matt. 10, 32. V. 7. l. 1 Jóh. 5, 20. m. Jóh. 12, 14. V. 9. Róm. 2, 28. Opinb. b. 2, 9. V. 10. Post. g. b. 11, 28. V. 11. n. Fil. 4, 5. Opinb. b. 1, 3. o. Kap. 2, 25. p. 1 Kor. 9, 25. V. 12. q. Kap. 14, 1. 22, 4. r. Kap 21, 2. 10. Gal. 4, 26. Hebr. 12, 22. V. 14. v. 7,

eda heitur; 16. en eins og þú ert nú, hálf-
volgur, hvørki heitur né kaldur, mun eg skirpa
þér útaf mínum munni. 17. Þú segir: eg em
a) ríkur og vel audugur ordinn og þarfnast
einskis; en þú veitst ekki, ad þú ert vesælíngur,
aumíngi og fátæklíngur, blindur og b) nakinn.
18. Eg ræd þér ad kaupa af mér eldskírt
gull, svo þú verdir ríkur, og hvít klædi til ad
skýla þér med, svo ad ekki auglýsist vanvirda
þíns fatleysis; berdú augna smyrsl á augu
þín, svo þú verdir sjáandi. 19. Eg aga og
vanda um vid þá, sem eg c) elska; legg þú
því allt kapp d) á ad bæta ráð þitt. 20.
Sjádú! eg stend vid hurdina og drep á dyr;
sá, sem heyrir raust mína og lýkur upp fyrir
mér, til hans mun eg inngánga, og vid skul-
um eta kvøldverd saman. 21. Þann, sem sigr-
ar, skal eg láta sitja hjá mér í mínu hásæti,
eins og eg sjálfur ad unnum sigri settist hjá
mínum Fødur í hans hásæti. 22. Sá, sem
hefir eyra, hann heyri hvad andinn segir
søfnudunum.

## 4. Kapítuli.

Jóhannes sjer dýrd Guds.

1. Eptir þetta gat eg ad líta hvar dyr luk-
ust upp á himni og sú raust, sem eg ádur hafdi
heyrt vid mig tala sem gjallanda lúdur, sagdi:
kom híngad upp, og mun eg sýna þér, hvad hér
eptir skal ské. 2. Eg e) vard strax í anda
og sá, ad hásæti stód á himni, og f) einhvørr
sat á því; 3. sá var ásýndum líkur Jaspis- og
Sardis-steini og í kríngum hásætid gékk regn-
bogi, sem Smaragdus á ad sjá. 4. Umhverf-
is hásætid voru 24 hásæti og á hásætunum sá
eg sitja 24 Øldúnga, skrýdda hvítum klædum
og høfdu á høfdum sér gull-legar kórónur. 5.
Utfrá hásætinu gengu eldíngar, gnýhljód og
þrumur, og sjø logandi eldleg blys brunnu fyr-
ir hásætinu, þad eru þeir sjø andar Guds.
6. Frammi fyrir hásætinu var sem glersjór,
líkur krystalli; fyrir midju hásætinu og umhverf-
is þad vóru fjøgur dýr, alsett augum í bak og
fyrir. 7. Eitt dýrid var líkt ljóni, annad kálfi,
þridja dýrid hafdi manns andlit, og þad fjórda
var líkt erni á flugi. 8. Þau fjøgur dýrin
høfdu sex vængi hvørt, alsetta augum umhverf-
is og innanverdt. Þau kølludu án afláts dag
og nótt: heilagur, heilagur, heilagur, Drottinn
Gud alvaldi, sá, sem er og var og vera mun.
9. Og þegar dýrin gjalda honum dýrd og
heidur og þakkir, sem á hásætinu situr, honum,
sem lifir um aldir alda, 10. þá falla þeir 24
Øldúngar framm fyrir þeim, sem á hásætinu
situr, og tilbidja þann, sem lifir um aldir alda, og
varpa sínum kórónum nidur fyrir hásætinu, og
segja: 11. Þér, Drottinn! g) ber vegsemd,
heidur og kraptur, því þú hefir h) skapad alla
hluti og fyrir þinn vilja eru þeir til ordnir og
skapadir.

## 5. Kapituli.

Bókin og lambid.

1. Í hægri hendi þess, er í hásætinu sat,
sá eg bók, sem skrifud var bádum megin og
innsiglud med sjø innsiglum. 2. Þá sá eg
sterkan Engil, sem kalladi hárri røddu: hvørr
er þess verdur ad brjóta frá innsiglin bókar-
innar og opna hana. 3. En enginn var sá

V. 17. a. 1 Kor. 4, 8. Opinb. 6. 2, 9. b. Kap. 16, 15. V. 18. Kap. 16, 15. 19, 8. V. 19. c. Job. 5, 17. Ordskv. 6. 3, 12. Hebr. 12, 6. d. Matt. 3, 2. Opinb. 6. 2, 5. 16. V. 20. Jóh. 14, 21. 23. V. 21. Matt. 19, 28. 1 Kor. 6, 2. 2 Tím. 2, 12. Jóh. 17. 24. V. 2. e. Kap. 1, 10. f. Kap. 5. 1. V. 4. Kap. 11, 16. V. 7. Esek. 1, 10. V. 8. Esa. 6, 3. Obinb. 6. 1, 4. 8. 11, 17. V. 11. g. Kap. 5, 12. h. Kap. 10, 6. 14, 7. V. 1. Kap. 4, 2. V. 2. Kap. 10, 1.

á himni eda jørdu eda undir jørdunni, sem opnad gjæti bókina og sjed í hana. 4. Eg grét stórum af því, ad enginn skyldi sá finnast, sem verdugur væri ad opna bókina og líta í hana. 5. Þá sagdi einn af Öldúngunum vid mig: grát ekki! vit þad, ad ljónid af a) Júdæ ættkvísl, b) afspríngur Davíds, hefir sigur unnid, svo þad gétur brotid frá þau sjø innsigli bókarinnar og c) opnad hana. 6. Þá sá eg lamb, eins og slátrad, standa milli hásætisins og þeirra fjøgra dýranna og Öldúnganna, þad hafdi sjø horn og sjø augu, sem eru þeir sjø andar Guds, sendir út um allann heim. 7. Þad kom og tók vid bókinni af hægri hendi þess, er í hásætinu sat. 8. Og þá þad hafdi tekid vid bókinni, féllu þau fjøgur dýrin og þeir 24 Öldúngar fram fyrir lambinu, og héldu hvørr um sig á hørpum og gullskálum fullum af reykélsi, þad eru bænir heilagra. 9. Þá súngu þeir nýann loffsaung, svo mælandi: verdugur ert þú ad taka vid bókinni og opna hennar innsigli, því þér hefir verid slátrad og þú hefir keypt oss Gudi til handa, af øllum kynkvíslum, túngumálum, þjódum og ættum med þínu blódi; 10. þú hefir gjørt oss ad Konúngum og kénnimønnum fyrir vorum Gudi, ad vér skyldum ríkja yfir jørdunni. 11. Sídan sá eg og heyrdi umhverfis hásætid, dýrin og Öldúngana, raustu margra Engla, sem voru ad tølu tíu þúsundir tíu þúsunda og þúsundir þúsunda; þeir søgdu med hárri røddu: 12. verdugt er d) þad slátrada lambid e) ad medtaka vald og ríkdóm, vitsku og krapt, heidur, dýrd og þakkir. 13. Þá heyrda eg hvørja f) sképnu á g) himni og jørdu og undir jørdunni og allt hvad í sjónum er, undirtaka og segja: þeim, sem í hásætinu situr og lambinu séu þakkir og heidur, dýrd og kraptur um aldir alda; 14. og þau fjøgur dýrin søgdu: Amen! en Öldúngarnir féllu framm og tilbádu.

## 6. Kapituli.

Lambid opnar 1ta, 2ad, 3ja, 4da, 5ta og 6ta innsigli.

1. Nú sá eg, ad lambid opnadi eitt af þeim sjø innsiglum, og heyrda eitt af þeim fjórum dýrum segja, eins og med þrumugný: kom þú! 2. Eg leit til, og sá hvítan hest, og sá, sem á honum sat, héldt á boga; honum var géfin kóróna, og hann fór af stad sigrandi og til ad sigra. 3. Þegar lambid opnadi annad innsiglid heyrda eg annad dýrid segja: kom! 4. Þá gékk út annar hestur raudur; þeim, sem á honum sat, var leyft ad eyda fridi á jørdu, og ad menn bærist banaspjót eptir; honum var fengid í hendur mikid sverd. 5. Þegar lambid opnadi þridja innsiglid, heyrda eg þridja dýrid segja: kom! Þá sá eg svartan hest; sá sem honum reid, héldt á metum í hendinni. 6. Þá heyrda eg raustu medal þeirra fjøgra dýranna, sem sagdi: einn mælir hveitis einn péníng, og þrír mælar byggs einn péníng; en eigi skaltú vidsmjørinu eda víninu granda. 7. Þegar lambid opnadi fjórda innsiglid, heyrda eg fjórda dýrid segja: kom! 8. Þá sá eg bleikan hest; sá, sem honum reid, hét Daudi, og Hel var í før med honum; honum var géfid vald til ad drepa fjórda hlut jardar-búanna med sverdi, húngri, drepsótt og

V. 5. a. 1 Mós. b. 49, 9. 10. b. Esa. 11, 1. 10. Róm. 15, 12. Opinb. b. 22, 16. c. Kap. 6, 1. fl. V. 6. Jóh. 1, 29. 1 Pét. 1, 19. V. 9. Post. g. b. 20, 28. 1 Kor. 6, 20. 7, 23. Efes. 1, 7. 2 Pét. 2, 1. Hebr. 9, 1. 10, 10. V. 10. 1 Pét. 2, 5. 9. Opinb. b. 1, 6. V. 12. d. Kap. 13, 8. e. Kap. 4, 11. 7, 10. 12. V. 13. f. Sálm. 148, 1. fl. g. Fil. 2, 10. V. 14. Kap. 4, 10. V. 1. Kap. 4, 6. 7. V. 2. Kap. 19, 11. fl. V. 4. Matt. 24, 6. 7. V. 5. Sak. 6, 2. V. 8. Sak. 6, 3. 6. Esek. 14, 13. fl.

bitvørgum jardar. 9. Þegar lambid opnadi fimta innsiglid, sá eg fyrir nedan a) altarid sálir þeirra manna, sem drepnir høfdu verid b) fyrir sakir Guds ords og þess vitnisburdar, sem þeir høfdu ávallt borid; 10. þær kølludu hástøfum og søgdu: þú heilagi og sannordi Drottinn, hvad skal þad lengi vara, ad þú dæmir og hefnir vors blóds á innbúum jardarinnar? 11. Hvørjum þeirra var fengin hvít kápa, og sagt, ad þær skyldu bída vid enn þá stundarkorn, þar til komnir væru samþjónar þeirra og brædur, sem deydast skyldu eins og þeir sjálfir. 12. Þegar lambid opnadi sjøtta innsiglid, sá eg ad c). mikill jardskjálfti vard; d) sólin sortnadi eins og hærusekkur, og allt túnglid vard eins og blód; 13. stjørnur himins hrøpudu nidur á jørdina, eins og þá fíkjutré, skakid af stormvindi, kastar nidur fíkjum sínum; 14. e. himininn hvarf eins og samanvafid bókfell, og hvert f. fjall og ey færdist úr stødvum sínum; 15. g. konungar jardarinnar, høfdíngjar og hersforíngjar, audmenn og ríkismenn, þegn og þræll, h) fólu sig í hellum og hømrum fjalla, 16. og søgdu til fjallanna og hamranna: hrynjid yfir oss og felid oss fyrir ásjónu þess, sem í hásætinu situr, og fyrir reidi lambsins: 17. því nú er kominn sá mikli dagur hans reidi; hverr fær nú stadist?

## 7. Kapítuli.

Gydínga ættkvíslir innsigladar. Lofsaungur þjódanna.

1. Eptir þetta sá eg fjóra Engla, sem stódu á fjórum hornum jardarinnar, þeir héldu þeim fjórum vindum jardarinnar, svo vindur nædi ekki ad blása yfir jørdina, eda hafid eda nokkurt tré. 2. Annan Engil sá eg stíga upp frá sólaruppkomustad, sá héldt á innsigli lifanda Guds, og kalladi hárri røddu til þeirra fjøgra Engla, sem vald høfdu fengid til ad granda jørdunni og sjónum. 3. Hann sagdi: grandid hvørki jørdunni, né sjónum, né trjánum, þar til vér høfum innsiglad þjóna Guds á ennum þeirra. 4. Þá heyrda eg tølu þeirra innsigludu; af øllum ættkvíslum Israelsmanna voru innsigladar hundrad fjørutíu og fjórar þúsundir; 5. af Júdasar ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Rúbens ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Gads ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; 6. af Assers ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Neftalims ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Manassis ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; 7. af Símeons ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Leví ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Isaskars ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; 8. af Sebúolns ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Jóseps ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar; af Benjamíns ættkvísl voru tólf þúsundir innsigladar.

9. Eptir þetta leit eg til og sá mikinn fjølda manna, svo ad eigi vard tølu á komid, af i) allskyns fólki, kynkvíslum, þjódum og túngumálum; þeir stódu frammi fyrir hásætinu og frammi fyrir lambinu, skrýddir k) hvítum skikkjum, med pálmavidar greinir í høndum sér. 10. Þeir l) kølludu upp hárri røddu segjandi: m) hjálprædid tilheyrir vorum Gudi, sem í hásætinu situr, og lambinu. 11. Og allir Englar, sem stódu umhverfis hásætid, og Øldúngana og þau fjøgur dýrin féllu þá fram á á-

V. 9. a. Kap. 8, 3. 9, 13. 14, 18. b. Kap. 1, 9. 19, 10. fl. V. 10. Lúk. 18, 7. V. 12. c. Kap. 16, 18. d. Lúk. 21, 25. Post. g. b. 2, 20. V. 14. e. Sálm. 102, 27. Lúk. 21, 33. f. Kap. 16, 20. V. 15 g. Kap. 19, 18. 19. h. Esa. 2, 19. V. 16. Lúk. 23, 30. V. 17. Esa. 13, 9. Róm. 2, 5. V. 2. Kap. 14, 1. V. 3. Kap. 19, 4. V. 9. i. Kap. 5, 9. k. Kap. 3, 5. 18. 6, 11. 19, 8. V. 10. l. Kap. 6, 10. m. Sálm. 3, 9. Esa. 43, 11.

sjónur sínar fyrir hásætinu, og tilbáðu Guð, svo mælandi: 12. Amen! lof og dýrð, vitska og þakkargjørð, heiður og vald og kraptur sé Guði vorum um aldir alda, Amen! 13. Einn af Öldúngunum talaði til mín og sagði: þessir, sem skrýddir eru hvítum skikkjum, hvørjir eru þeir, og hvaðan eru þeir komnir? 14. Eg svaraði honum: Herra minn! þú veitst það. Þá sagði hann við mig: þetta eru þeir, sem komnir eru úr hørmúnginni miklu, og hafa þvegið sínar skikkjur, og hvítfágað þær í blóði lambsins. 15. Þess vegna eru þeir frammi fyrir hásæti Guðs, og þjóna honum dag og nótt í hans musteri; og sá, sem í hásætinu situr, mun tjalda yfir þeim. 16. Þá mun hvørki a) húngra né þyrsta framar, og ekki mun b) sólarhiti eða nokkurr bruni á þá falla. 17. Því c) lambið, sem er fyrir miðju hásætinu, d) mun gjæta þeirra og vísa þeim á lifandi vatns lindir, og e) Guð mun þerra hvørt tár af þeirra augum.

## 8. Kapítuli.

Lambið opnar 7da innsiglið. Englar með sjø básúnum: sá 1ti, 2ar, 3ji og 4ði Engill básúnar.

1. En þegar lambið opnaði sjøunda innsiglið, varð þøgn á himni hérumbil hálfa stund.

2. Þá sá eg sjø Engla, sem stóðu frammi fyri Guði; þeim voru fengnar sjø básúnur. 3. Þá kom annar Engill og f) staðnæmdist við altarið, hann hélt g) á gullegu reykélsis kéri; honum var fengið mikið af reykélsi, til þess að brenna því á því gullega altari, sem var frammi fyrir hásætinu, meðan allir heilagir væru að biðjast fyrir; 4. og undir bænum heilagra sté reykurinn af reykélsinu úr hendi Engilsins fram fyrir Guð. 5. Síðan tók Engillinn reykélsis kérið, fyllti það með eldi af altarinu, og varpaði því ofan á jørðina; urðu þá gnýhljóð og þrumur og eldíngar og landskjálfti. 6. Þeir sjø Englar, sem héldu á þeim sjø básúnum, bjuggu sig þá til að blása.

7. Þegar sá fyrsti básúnaði, varð hagl og eldur blóði blandað, og dundi ofan á jørðina; þá brann þriðjúngur jarðarinnar og þriðjúngur trjánna og allt grængresi. 8. Þegar annar Engillinn básúnaði, féll ofan í sjóinn líka sem stórt fjall, logandi af eldi, og þá varð þriðjúngur sjáfarins að blóði; 9. dó þá þriðjúngur lifandi sképna í sjónum, og þriðjúngur skipanna fórst. 10. Þegar þriðji Engillinn básúnaði, féll af himni stór stjarna, logandi sem blys, og datt yfir þriðjúng ánna og yfir uppsprettur vatnanna. 11. Þessi stjarna hét Remma; þá varð þriðjúngur vatnanna rammur, og margir menn dóu af því, að vøtnin voru beisk orðin. 12. Þegar fjórði Engillinn básúnaði, varð lostinn þriðjúngur sólarinnar og túnglsins og stjarnanna, svo að þau formyrkvuðust um þriðjúng, og dagurinn missti þriðjúng sinnar birtu, og nóttin sømuleiðis. 13. Síðan sá eg og heyrði einn ørn fljúga um miðhimininn, hann kallaði hárri røddu: vei, vei, vei! þeim, sem á jørðu búa, vegna lúðursþyts hinna þriggja Engla, sem hér eptir munu básúna.

## 9. Kapítuli.

Sá 5ti og 6ti Engill básúnar.

1. Þegar sá fimti Engill básúnaði, sá eg stjørnu falla af himni ofan á jørðina; henni var fenginn lykill að brunni afgrunnsins. 2. Hún lauk upp brunni afgrunnsins, og þá lagði reyk upp af brunninum, eins og af stórum elds=

V. 12. Kap. 5, 12. V. 14. Hebr. 9, 14. Opinb. b. 1, 5. V. 15. Esa. 4, 5. 6. V. 16. a. Esa. 49, 10. b. Sálm. 121, 6. V. 17. c. Kap. 5, 6. d. Jóh. 10, 10. 11, e. Esa. 25, 8. Opinb. b. 21, 4. V. 2. 1 Kor. 15, 52. V. 3. f. Kap. 6, 9. 9, 13, 14, 18. g. Kap. 5, 8. V. 4. Post. g. b. 10, 4. V. 10. Kap. 9, 1. V. 13. Kap. 9, 12. 11, 14. 15, 1. V. 2. Kap. 8, 12.

ofni, og sólin og loptid vard formyrkvad af reyknum úr brunninum. 3. Engisprettur fóru úr reyknum ofan á jördina, þær vóru eins magnadar og jardar-høggormar. 4. Þeim var bannad ad granda grasi jardarinnar og øllum grænum jurtum og trjám, nema þeim mønnum, sem ekki høfdu innsigli Guds á ennum sínum. 5. Þeim var svo bodid, ad þær dræpi þá ekki, heldur kveldi þá í fimm mánudi; þessi kvøl var eins og þegar høggormur stíngur mann. 6. Á þeim tímum munu menn leita daudans, en ekki finna hann; þeir munu æskja sér ad deya, en daudinn mun fordast þá. 7. Engispretturnar voru svipadar hestum, búnum til bardaga; á høfdum þeirra voru eins og gullkórónur, og ásjónur þeirra voru eins og á mønnum. 8. Þær høfdu hár eins og kvennmanns hár, og tennur eins og ljóns tennur; 9. brynjur þeirra voru eins og járnbrynjur, og vængja þyturinn eins og vagna gnýr, þá margir hestar hlaupa fram til bardaga. 10. Þær høfdu hala, líka høggorma spordum, og brodda í. Þær høfdu vald til ad granda mønnum med hølunum í fimm mánudi. 11. Engill afgrunnsins er Konúngur yfir þeim; hann heitir á Hebresku Abaddón, en á Grísku Apollyón (eydileggjari). 12. Sú fyrsta plága var nú umlidin, en tvær adrar koma hér á eptir.

13. Þegar sjøtti Engillinn básúnadi heyrdi eg eina rødd fara frá fjórum hyrníngum þess gullega altaris, sem frammi var fyrir Gudi; 14. hún sagdi vid sjøtta Engilinn, sem héldt á básúnunni: a) leys þá fjóra Engla, sem fjøtradir eru hjá b) því mikla fljoti Evphrat. 15. Sídan voru þeir fjórir Englar leystir, og stódu þeir vidbúnir á hvørri stundu, á hvørjum degi, mánudi og ári, til ad drepa þridjúng mannanna. 16. Tala riddara lidsins voru tvennar tíuþúsundir tíuþúsunda, þessa tølu fékk eg ad vita. 17. Líka sá eg hestana í vitruninni, og þá, sem þeim ridu, þeir høfdu eldraudar, svartbláar og bleikgular brynjur, høfud hestanna voru eins og ljóna høfud, og af munnum þeirra gékk eldur, reykur og brennisteinn. 18. Af þessum þremur plágum, eldi, reyk og brennisteini, sem útgékk af munnum þeirra, drapst þridjúngur mannanna. 19. Því magn hestanna var í munni þeirra og tøglum, því tøglin voru lík høggormum, og voru med høfdum; med þeim grøndudu þeir. 20. Þeir menn, sem ekki fyrirfórust í þessum plágum, e) létu samt ekki af háttalagi sínu, heldur tilbádu afgudi og líkneskjur d) úr gulli, silfri, eiri, steini og tré, sem hvørki géta sjed, heyrt, né gengid. 21. Ekki létu þeir heldur af manndrápum, gøldrum, saurlifnadi, eda þjófnadi.

## 10. Kapítuli.

Þær sjø þrumu raddir. Eidur Engilsins. Bæklíngurinn.

1. Sídan sá eg annan e) Engil sterkan stíga af himni ofan, hann var klæddur skýi; yfir høfdi honum var f) regnbogi, g) andlit hans var eins og sólin, og fætur hans, sem eldstólpar. 2. Hann héldt á opnum bæklíngi í hendinni, og setti hægra fótinn á sjóinn, en hinn vinstra á jördina. 3. Hann kalladi hárri røddu, eins og þá ljón øskrar, og þegar hann hafdi kallad, tøludu þær sjø reidarþrumur sín=

V. 4. Kap. 7, 3. V. 6. Job, 3, 21. Esa. 2, 19. Jer. 8, 3. Hós. 10, 8. Lúk. 23, 30. Opinb. b. 6, 16. V. 8. Jóel. 1, 6. V. 9. Jer. 47, 3. V. 12. Kap. 8, 13. V. 13. Kap. 8, 3. V. 14. a. Kap. 20, 7. b. Kap. 16, 12. V. 20. c. Kap. 16, 11. d. 3 Mós. b. 17, 7. 5 Mós b. 31, 16. Dan. 5, 23. V. 1. e. Kap. 5, 2. f. Kap. 4, 2. g. Kap. 1, 16. Matt. 17, 2. V. 3. Kap. 18, 2.

ar raddir. 4. En þá þær sjø þrumur høfdu talad, ætladi eg ad fara ad skrifa; þá heyrdi eg rødd af himni, sem sagdi: innsigla þú þad, sem þær sjø reidarþrumur hafa talad, og skrifa þad ekki. 5. Sá a) Engill, sem eg sá standa á sjónum og jørdunni, b) hóf þá upp sína hægri hønd til himins, 6. og c) sór vid þann, sem lifir ad eilífu, sem d) skóp himininn og þad sem í honum er, jørdina og þad, sem á henni er, og sjóinn og þad, sem í honum er: ad enginn frestur mundi lengur géfinn verda; 7. heldur, þá sá sjøundi Engill básúnadi, skyldi framkvæmast Guds leynda rád, sem hann hafdi birt Spámønnunum, sínum þjónum. 8. Røddin, sem eg heyrdi af himni, taladi þá til mín aptur og sagdi: far og tak þann opna bæklíng, er Engillinn heldur á, sem stendur á sjónum og jørdunni. 9. Eg fór til Engilsins og bad hann fá mér bæklínginn; hann sagdi vid mig: tak og et hann, hann mun verda beiskur í maga þínum, en í munni þér sætur, sem hunáng. 10. Eg tók þá vid bæklíngnum af Englinum, og át hann, og var hann sætur í munni mínum, sem hunáng, en þá eg hafdi etid hann, fékk eg maga verki. 11. Þá sagdi hann vid mig: þér ber aptur ad spá í gégn þjódum, lýdum, túngumálum og mørgum Konúngum.

## 11. Kapituli.

Mæling musterisins. Þeir tveir vottar. Sá 7di Engill básúnar.

1. Mér var fenginn reyrleggur, líkur staf, med þessum ummælum: statt upp og mæl musteri Guds og altarid og þá, sem bidjast þar fyrir. 2. En fordyrinu fyrir utan musterid skaltú sleppa og ekki mæla þad, af því þad er ætlad heidíngjum, e) og þeir munu fóttroda borgina helgu f) í fjørutýgi og tvo mánudi.

3. En mína tvo votta vil eg láta spá í eitt þúsund tvø hundrud og sextýgi daga, klædda sorgar búníngi. 4. Þetta eru þær tvær vidsmjørs vidargreinir og þeir tveir ljósastjakar, sem standa frammi fyrir Drottni jardarinnar. 5. Vilji nokkur þeim granda, skal eldur gánga framm úr munni þeirra og eyda óvinum þeirra, og þannig skal hvørr deya, sem þeim vill granda. 6. Þeir hafa vald til ad g) loka himninum, svo ekki komi regn um spádóms daga þeirra; þeir hafa og h) vald til ad snúa vøtnunum í blód og slá jørdina med i) allskonar plágum, svo opt, sem þeir vilja. 7. Þegar þeir hafa aflokid sínum vitnisburdi, mun k) dýrid, sem uppstígur úr afgrunninu, l) herja á þá, hafa sigur og drepa þá. 8. m) Hræ þeirra munu liggja n) á stræti borgarinnar ennar miklu, sem í andlegum skilníngi kallast Sódóma og Egyptaland, hvared og þeirra Drottinn er krossfestur. 9. Menn af ýmsum þjódum, ættkvíslum, túngumálum og fólki munu sjá þeirra hræ í hálfan fjórda dag, og ekki leyfa ad lík þeirra verdi løgd í legstad. 10. Innbúar jardarinnar munu gledja sig yfir þeim og vera kátir og senda hvørr ødrum gjafir, þared þessir tveir Spámenn kvøldu innbúendur jardarinnar. 11. En ad lidnum þeim hálfum fjórda degi, fór lífs-andi frá Gudi í þá; þeir risu þá á fætur og mikill ótti féll yfir þá, sem þá sáu. 12. Þeir heyrdu þá rødd mikla af

V. 4. Dan. 8, 26. 12, 4. 9. V. 5. a. Dan. 12, 7. b. 1 Mós. b. 14, 22. 5 Mós. b. 32, 40. V. 6. c. Matt. 26, 63. d. Sálm. 124, 8. V. 7. Róm. 11, 25. 1 Kor. 15, 51. V. 11. Kap. 1, 11. 19. V. 2. e. Lúk. 21, 24. f. Kap. 13, 5. V. 3. Kap. 12, 6. V. 5. 2 Kóng. b. 1. 10. 12. V. 6. g. 1 Kóng. b. 17, 1. 18, 1. h. 2 Mós. b. 7, 17. 19. i. 2 Mós. b. 8. og 9. st. V. 7. k. Kap. 13, 1. l. v. 7. Dan. 7, 21. V. 8. m. Jer. 9, 22. n. Kap. 18, 10. V. 10. Jóh. 16, 20.

himni, sem sagdi vid þá: komid híngad upp!
þeir fóru þá upp til himins í skýi, svo óvinir
þeirra horfdu á. 13. Á þeirri stundu vard
svo mikil hræríngl, ad tíundi partur borgar-
innar hrundi, og í þeim jardskjálfta dóu sjø
þúsundir manna; þeir, sem eptir voru, urdu
óttaslegnir og lofudu himnanna Gud. 14. Sú
ønnur plága var nú umlidin, en sú þridja
kémur brádum.

15. Þegar sá a) sjøundi Engill básúnadi,
komu upp miklar raddir á himni, svo segjandi:
b) vor Drottinn og hans Smurdi hefir feng-
id vald yfir heiminum og mun ríkja ad eilífu.
16. Þeir c) tuttugu og fjórir Öldúngar, sem
sátu á sínum stólum frammi fyrir Gudi, d)
féllu þá fram á sínar ásjónur, tilbádu Gud
og søgdu: 17. vér þøkkum þér, Drottinn Gud
alvaldi, e) þú, sem ert og varst, f) fyrir þad
ad þú hefir tekid þitt mikla veldi, og ríkir. 18.
Heidíngjarnir íllskudust, en þín g) hegníng
kom, og sá tími, þá þeir framlidnu skulu
dæmdir verda, og þínir þjónar og Spámenn
og heilagir og þeir, sem óttast þig, skulu fá
sitt h) endurgjald, smáir og stórir, en þeir fyr-
irfarast, sem i) eydileggja jørdina. 19. Þá
opnadist k) Guds musteri á himni, og l) sátt-
málsørk Drottins birtist í hans musteri; urdu
þá m) eldíngar, hvellir, reidarþrumur, jard-
skjálfti og n) mikid hagl.

## 12. Kapítuli.

Kvinnan og drekinn.

1. Þá birtist mikid teikn á himni; þad
var kona, sem hafdi um sig sólarbaug, túngl
var undir fótum hennar, en á høfdi hennar
kóróna med tólf stjørnum í. 2. Hún var
þúngud, og þjádist af mikilli jódsótt, og hljód-
adi. 3. Þá sást annad teikn á himni, þad
var stór dreki eldraudur, hann hafdi sjø høfud
og tíu horn og á høfdunum sjø kransa. 4.
Hann dró med spordinum þridjúng himins
stjarna og kastadi þeim á jørdina; drekinn
stadnæmdist hjá konunni, sem ad því vor
komin ad fæda, og ætladi ad gleypa barnid,
þá hún hefdi fætt. 5. Hún fæddi sveinbarn,
sem ríkja skyldi yfir øllum þjódum med járn-
sprota; barnid var skyndilega flutt burt fram
fyrir Gud og hans hásæti; 6. en konan flúdi
á eydimørk, hvar Gud hafdi tilbúid henni sama-
stad, og þar skyldi hún haldast vid í tólf
hundrud og sextýgi daga. 7. Eptir þad hófst
stríd á himni: Mikael og hans Englar strídda
á drekann, en drekinn og hans Englar strídda
á móti; 8. hann hafdi midur og héldt ekki
framar vid á himni; 9. og var þeim o) mikla
dreka, þeim p) gamla høggormi, sem kallast
djøfull og Satan, honum, sem afvega leidir
alla menn, kastad ofan á jørdina og hans Engl-
um med honum. 10. Þá heyrdi eg mikla
rødd af himni, svo segjandi: nú q) tilheyrir
sigurinn, krapturinn og r) ríkid vorum Gudi,
og veldid hans smurda, því áklagari vorra
brædra, sem s) áklagar þá fyrir Gudi vorum
nótt og dag, er nidurkastadur. 11. Þeir
hafa sigrad hann fyrir blód lambsins og fyrir
ord vitnisburdar síns; þeir hafa hætt lífi sínu

---

V. 13. Kap. 16, 18. V. 14. Kap. 8, 13. V. 15. a. Kap. 10, 7. b. Efes. 5, 3. Opinb. b. 12, 10. 19, 6. V. 16. c. Kap. 4, 10. d. Kap. 7, 11. V. 17. e. Kap. 1, 4. 8. Kap 4, 8. 16, 5. f. Kap. 19, 6. Sálm. 21, 14. V. 18. g. Kap. 6, 17. h. Matt. 20, 8. i. 2 Tess. 1, 6. V. 19. k. Kap. 15, 5. l Hebr. 9, 4. m. Kap. 4, 5. 8, 5. n. Kap. 16, 21. V. 6. Kap. 11, 3. V. 7. Dan. 10, 13. 20. 12, 1. Júd. v. 9. V. 9. o. Lúk. 10, 18. Opinb. b. 20, 2. p. 1 Mós. b. 3, 1. sl. Jóh. 12, 31. 2 Kor. 11, 3. V. 10. q. Kap. 11, 15. r. Efes. 5, 5. s. Job. 1, 9. 2, 5.

fram í daudann. 12. Verid þess vegna gladir,
þér himnar, og þér, sem á himnum búid.
Vei sé jördunni og sjónum, því ad djøfullinn
er ofan til ydar farinn í miklum mód, því hann
veit, ad hann hefir naumann tíma. 13. En
sem drekinn sá, ad búid var ad varpa honum of-
an á jördina, offókti hann konuna, sem fædt
hafdi sveinbarnid. 14. Þá vóru konunni géfnir
tveir stórir arnar vængir, til ad fljúga á þann
stad í eydimørkinni sem henni a) var ætladur,
hvar hún átti ad vera í fjærlægd vid høgg-
orminn b) um eina tíd, (tvær) tídir og hálfa
tíd. 15. Høggormurinn spjó vatni út úr sér
á eptir konunni eins og vatnsflódi, svo ad
hún hrifist burt af straumnum; 16. en jørd-
in kom konunni til hjálpar, og opnadi sinn munn
og svalg vatnsflódid, sem drekinn hafdi útspú-
id. 17. Þá reiddist drekinn vid konuna, og
fór burt til ad herja á hina af afkomendum
hennar, sem c) vardveittu Guds bodord og
høfdu Jesú d) vitnisburd. 18. Sídan stad-
næmdist eg vid sjáfar strøndina.

## 13. Kapítuli.

Þau tvø dýr.

1. Eg sá dýr stíga upp af hafinu, þad
hafdi tíu horn og sjø høfud; á hornunum voru
tíu kórónur og á høfdunum voru gudløstunar ord.
2. Þetta dýr, sem eg sá, var líkt Pardusdýri,
fæturnir voru eins og bjarnar fætur, munnur-
inn eins og á ljóni; e) drekinn gaf því sitt
vald, sitt f) hásæti og mikil yfirrád. 3. Eitt
af høfdum þess var sært eins og med daud-
legu sári, en þetta banasár vard heilt, og allir
menn fylgdu dýrinu med undrun, 4. og tilbádu
drekann, fyrir þad ad hann hafdi veitt dýr-
inu yfirrádin, líka tilbádu þeir dýrid, segjandi:
hvørr kann ad jafnast vid dýrid? og hvørr
gétur strídt vid þad? 5. Því g) var veitt-
ur munnur til ad tala stóryrdi og gudlastanir,
og lofad ad fara því fram h) í fjøruníu og tvo
mánudi. 6. Þad upplauk þá sínum munni
til ad tala løstunar-yrdi gégn Gudi, lastadi
hans nafn og hans tjaldbúd, og þá, sem á
himni búa. 7. Því var lofad ad herja á
heilaga og sigra þá; því var géfid vald yfir
allskyns kynkvísl, fólki, túngumáli og þjód.
8. i) Allir innbúar jardarinnar munu tilbid-
ja hann, hvørra k) nøfn ekki eru skrifud í lífs-
bók lambsins, þess slátrada allt í frá skøpun
heimsins. 9. Hvørr, sem eyru hefir hann
heyri: 10. Hvørr, sem l) herleidir, hann skal
herleiddur verda; hvørr, sem m) med sverdi
drepur, skal med sverdi drepinn verda. n)
Hér reynir á þolgjædi og trú heilagra.

11. Eg sá o) annad dýr stíga upp af jørd-
unni, þad hafdi tvø horn, p) lík lambs horn-
um, mál þess var eins og dreka mál. 12.
Þad fer øllu því sama fram, sem hid fyrra
dýrid, í augsýn þess, og lætur jørdina og alla,
sem á henni búa, tilbidja fyrra dýrid, hvørs
banvæna sár hafdi verid læknad. 13. Þad
gjørir stór tákn og lætur eld falla til jardar
af himni í augsýn manna. 14. Þad afvega-

---

V. 14. a. Esa. 30, 20. b. Dan. 7, 25. 12, 7. V. 17. c. Kap. 14, 12. d. 1 Jóh. 5, 10.
V. 1. Dan. 7, 7. Opinb. b. 17, 3. 9. 12. V. 2. e. Kap. 12, 9. f. Kap. 2, 13. V. 4.
Kap. 18, 18. V. 5. g. Dan. 7, 8. 11. 25. 11, 36. h. Kap. 12, 6. V. 6. Kap. 16, 9.
11. V. 7. Kap. 14, 12. V. 8 i. Kap. 8, 13. 12, 12. k. Kap. 3, 5. 17, 8. 20 12.
V. 10. l. Kap. 11, 18. m. Matt. 26, 52. Opinb. b. 18, 6. n. Kap. 14, 12. V. 11. o.
Kap. 11, 7. p. Matt. 7. 15. 24, 11. 24. V. 13. Matt. 24, 24. 2 Tess. 2, 9. Opinb. b.
16, 14. V. 14. Kap. 16, 14. 19, 20.

leidir þá, sem á jørdunni búa, med þeim táknum, sem því er lofad ad gjøra í augsýn dýrsins, og býdur innbúum jardarinnar ad gjøra líkneski eptir því dýrinu, sem fengid hafdi sár af sverdinu, en lifdi þó. 15. Því var lofad ad géfa líf líkneskju dýrsins, svo líkneskjan taladi og lét drepa alla þá, sem ekki vildu tilbidja líkneski dýrsins. 16. Þad lætur alla, stóra og smáa, ríka og fátæka, frjálsa og ófrjálsa setja einkénni á sína hægri hønd eda á enni sín, 17. svo enginn géti keypt eda selt nokkud, nema sá, sem hefir þetta merki, nafn dýrsins eda tølustafi nafns þess. 18. Hér rídur á speki; sá, sem skilníng hefir, útreikni tølustafi dýrsins; því talan er manns nafn, og talan er sexhundrud sextíu og sex.

## 14. Kapítuli.

*Lofsaungur þeirra innsigludu. Þad eilífa Evangelíum. Strøffunar-dómur Guds.*

1. Sídan sá eg lambid standa á Síónsfjalli, og med því hundrad og fjørutíu og fjórar þúsundir, sem høfdu nafn þess og nafn fødur þess skrifad á ennum sínum. 2. a) Eg heyrdi þá rødd af himni, svo sem nid margra vatnsfalla eda sem mikinn þrumugný; en røddin, sem eg heyrdi, var eins og b) (rødd) hørpuslagara, sem slá hørpur sínar. 3. Þeir súngu einhvørn nýan saung frammi fyrir hásætinu og þeim fjórum dýrum og øldúngunum; en enginn gat numid saunginu, nema þær hundrad fjørutíu og fjórar þúsundir, sem leystar voru frá jørdunni. 4. Þessir eru c) þeir, sem ekki hafa saurgad sig med konum, því þeir hafa vardveitt sitt skírlífi; þeir fylgja lambinu, hvørt sem þad fer, og hafa d) leystir verid frá mønnunum, svo sem e) frumgródi Guds og lambsins. 5. f) Í þeirra munni finnst engin lýgi; þeir eru g) lýtalausir.

6. Eg sá annan Engil fljúga um midhimininn, hann héldt á eilífum fagnadarbodskap, sem hann kunngjørdi innbúum jardarinnar, allri þjód, kynkvísl, túngumáli og fólki. 7. Hann sagdi hárri røddu: h) óttist Gud og vegsamid hann, því tími hans dóms er fyrir høndum; tilbidjid þann, sem i) gjørt hefir himininn og jørdina og sjóinn og uppsprettur vatnanna. 8. Annar Engill kom á eptir honum, og sagdi: hún er fallin, hún er fallin, sú mikla Babýlon, sem byrlad hefir øllum þjódum vín síns eitrada saurlifnadar. 9. Þar á eptir kom hinn þridji Engill, sem sagdi hárri røddu: hvørr, sem tilbidur dýrid og þess líkneskju og lætur merkja sig á sínu enni eda hønd, 10. hann skal drekka Guds reidi vín, hvørju k) helt er óbløndudu á hans reidibikar, og l) kveljast í eldi og brennisteini í augsýn heilagra Engla og lambsins. 11. Og m) kvala-reykur þeirra mun uppstíga eilíflega; þeir, sem tilbidja dýrid og þess líkneskju og láta merkja sig med þess n) fángamarki, skulu enga ró hafa nótt né dag. 12. Hér reynir á o) þolgjædi heilagra, sem p) vardveita bodord Guds

---

V. 15. Kap. 14, 11. 19, 20. V. 17. Kap. 14, 9. 11. V. 18. Kap. 15, 2. V. 1. Sálm. 2, 6. Opinb. b. 7, 4. V. 2 a. Kap. 1, 10. 15. b. Kap. 5, 8. V. 4. c. 1 Kor. 6. 15. 2 Kor. 11, 2. Opinb. b. 3, 4. d. 1 Kor. 6, 20. Opinb. b 3, 9. e. Jak. 1, 18. V. 5. f. Sálm. 32, 2. g. Efes. 5, 27. Kól. 1, 22. V. 7. h. Préd. b. 12, 13. 5 Mós. b. 32, 3. i. Sálm. 33, 6. 146, 6. V. 8. Kap 16, 19. 18, 2. V. 9. Kap. 19, 20. V. 10. k. Kap. 16, 19. l. Kap. 19, 20. 20, 10. V. 11. m. Kap. 19, 3. o. Kap. 13, 16. 17. 16, 2. V. 12. o Kap. 13, 10. p. Kap. 12, 17.

og trúna á Jeſúm. 13. Þá heyrdi eg a)
rødd af himni, ſem ſagdi: b) ſkrifa þú, ſæl-
ir eru þeir framlidnu, ſem c) nú eru í Drottni
dánir. Já! ſegir andinn, þeir d) géta hvílt
ſig eptir ſitt erfidi, því þeirra verk fylgja þeim.
14. Sídan ſá eg hvítt ſký og einhvørn ſit-
ja á ſkýinu líkann manni; hann hafdi gull-
lega kórónu á høfdinu og bitran ljá í hendi
ſér. 15. Þá gékk annar Engill út úr muſt-
erinu, hann kalladi hárri røddu til þeſs, ſem á
ſkýinu ſat: bregdtú ljánum og ſkér upp, því
uppſkéru tíminn er kominn og ávørtur jardar-
innar ordinn fullvaxinn. 16. Sá, ſem á ſký-
inu ſat, brá þá ljánum ofan á jørdina, og
jørdin vard ſlegin. 17. Þá gékk annar Eng-
ill út úr muſterinu á himnum, hann héldt og á
bitrum ljá; 18. en annar Engill gékk frá alt-
arinu, hann hafdi vald yfir eldinum; hann
kalladi hárri røddu til þeſs, ſem héldt á þeim
beitta ljá, og ſagdi: bregdtú þínum hvaſsa ljá
og afſkér berin af vínvidi jardarinnar, því vín-
vidarberin eru ordin fullvaxin. 19. Engill-
inn brá þá ljá ſínum ofan á jørdina og afſkar
vínvidar ávørt jardarinnar, og kaſtadi honum
í þá ſtóru vínpreſsu Guds reidi. 20. Sídan
var e) vínpreſsan trodin utanborgar og gékk
f) blód út af vínpreſsunni, ſvo ad tók upp
undir heſta beitſlin, og flaut yfir ſextán hundrud
ſkeidrúm.

## 15. Kapítuli.

Þær ſjø ſeinuſtu plágur; ſaungur ſigurvegaranna.
Þær ſjø reidi-ſkálir.

1. Sídan g) ſá eg annad mikid og dá-
ſamlegt teikn á himni, h) ſjø Engla, ſem høfdu
þær ſjø ſeinuſtu plágur, med hvørjum Guds
reidi átti ad enda. 2. Eg ſá eins og i) gler-
ſjó eldi blandinn, og þá k), ſem ſigrad høfdu
dýrid og þeſs líkneſkju og tølu nafns þeſs,
ſtanda vid glerſjóinn l), med hørpur Guds
í høndum ſér. 3. Þeir ſýngja ſaung m) Móſis
þjónuſtumanns, og ſaung lambſins, ſegjandi:
n) mikil og dáſamleg eru þín verk, Drottinn
Gud alvaldi o), réttvíſir og ſannir eru þínir
vegir, þjódanna Konúngur! 4. Hvørr ſkyldi p)
ekki óttaſt þig, Drottinn, og vegſama þitt nafn?
því þú einn ert heilagur; q) allar þjódir munu
koma og falla fram fyrir þér; þínar réttvíſu
rádſtafanir eru opinberar ordnar. 5. Eptir
þetta ſá eg ad opnadiſt muſteri vitnisburdar
tjaldbúdarinnar á himni. 6. Þá gengu út úr
muſterinu, þeir ſjø Englar, ſem høfdu þær ſjø
plágur, þeir voru ſkrýddir hreinu ſkínanda líni
og girdtir um brjóſtin med gullegum beltum.
7. Eitt af þeim fjórum dýrum fékk þeim ſjø
Englum ſjø gullegar ſkálar, fullar af reidi
Guds, þeſs er lifir um aldir alda. 8. Þá
fylltiſt muſterid reykjar af dýrd og almætti
Guds, og enginn mátti inngánga í muſterid,
þar til aflidnar voru þær ſjø plágur þeirra ſjø
Engla.

## 16. Kapítuli.

Þeir ſjø Englar hella úr þeim ſjø ſkálum.

1. Eg heyrdi mikla rauſt frá muſterinu,
ſem taladi til þeirra ſjø Engla: farid og hell-
id úr þeim ſjø ſkálum Guds reidi yfir jørdina.
2. Þá fór ſá fyrſti og hellti úr ſinni ſkál yfir

V. 13. a. Kap. 12, 10 b. Kap. 1, 11. 19. c. 1 Kor. 15, 18. 1 Teſsa. 4. 14. d. Hebr. 4, 10. V. 14. Dan. 7, 13. Opinb. b. 1, 13. V. 15. Kap. 6, 17. Matt. 13, 39. V. 20. e. Eſa. 63, 3. f. Eſa. 34, 3. V. 1. g. Kap. 12, 13. h. Kap. 21, 9. V. 2. i. Kap. 4, 6. k. Kap. 12, 11. l. Kap. 5, 8. 14, 2. V. 3. m. 2 Móſ. b. 15, 1. 5 Móſ. b. 32, 1. 44. n. Sálm. 111, 2, 139, 14. o. Sálm. 145, 17. Opinb. b. 16, 7. V. 4. p. Jer. 10, 6. 7. q. Sálm. 86, 9. Eſa. 66, 23. V. 5. 4 Móſ. b. 1, 50. Opinb. b. 11, 19. V. 6. Kap. 1, 13. V. 7. Kap. 4, 6. 9. V. 8. 2 Móſ. b. 40, 34. 1 Kóng. b. 8, 10. Eſa. 6, 4. V. 1, Kap. 15, 7. V. 2. Kap. 13, 16. 17.

jørdina. Þá komu ljót og ill sár á þá menn, sem høfdu mark dýrsins og tilbádu þess líkneskju. 3. Sá annar Engill hellti úr sinni skál í sjóinn, og vard hann ad blódi, eins og daudablódi, svo ad hvør lifandi sképna dó í sjónum. 4. Sá þridji Engill hellti úr sinni skál í fljótin og uppsprettur vatnanna, og urdu þau ad blódi. 5. Eg heyrdi Engil vatnanna segja: a) réttvís ertú b), sem ert og varst, þú hinn heilagi! ad þú hefir dæmt þannig; 6. af því þeir hafa úthellt blódi heilagra og Spámannanna, hefir þú géfid þeim blód ad drekka; þeir eru þess maklegir. 7. Þá heyrdi eg talad frá altarinu: já, Drottinn Gud alvaldi! sannir og réttvísir eru þínir dómar. 8. Sá fjórdi hellti úr sinni skál í sólina, honum var géfid vald til ad brenna mennina í eldi. 9. Mennirnir stiknudu þá af miklum hita og c) løstudu Gud, sem hafdi vald yfir þessum plágum, og d) ekki betrudu þeir síg, svo þeir gjæfi honum dýrdina. 10. Sá fimti hellti úr sinni skál á hásæti dýrsins; þá formyrkvadist þess ríki, og menn bitu í túngur sínar af ofraun, 11. og hallmæltu himinsins Gudi fyrir sín harmkvæli og sár, en létu þó ekki af athæfi sínu. 12. Sá sjøtti hellti úr sinni skál í fljótid mikla Evfrat; vatnid í því þornadi þá upp, svo ad vegur greiddist fyrir Konúngana úr sólaruppkomu-stad. 13. Sídan sá eg þrjá óhreina anda, eins og pøddur, fara e) út af munni drekans og af munni f) dýrsins og af munni fals-spámannsins. 14. Þetta eru g) djøfla andar, sem gjøra teikn, hvørjir ed fara til allra Konúnga í verøldinni, til ad safna þeim saman til h) stridsins á hinum mikla degi Guds hins alvalda. 15. Sjá! eg kém eins og þjófur; sæll er sá, sem vakir og geymir sín klædi, svo hann gángi ekki nakinn um kríng og adrir sjái hans blygdun. 16. Andarnir søfnudu þeim saman á þeim stad, sem á Hebresku kallast Harmagedón. 17. Sá sjøundi hellti úr sinni skál útí loptid; þá gékk raust mikil út af musteri himinsins frá hásætinu, sem sagdi: þad er skéd; 18. þá urdu i) eldíngar og brestir og þrumur, og k) hræríng svo mikil, ad aldrei hefir ordid ønnur slík, frá því menn urdu til á jørdunni, eins og sú hræríng vard. 19. Þá skiptist borgin mikla í þrjá hluti, og borgir heidíngjanna hrundu. Þannig minntist Gud þeirrar miklu Babýlonar, ad hann lét hana bergja á víni sinnar heiptar reidi. 20. Allar eyar hvurfu, og fjøllin urdu ad engu; 21. þá féll vættarþúngt hagl af himni yfir mennina; en mennirnir hallmæltu Gudi fyrir hagl-pláguna, því ad sú plága var ákaflega mikil.

## 17. Kapítuli.

*Sú mikla hórkona Babylon. Útþýdíng hórkonunnar og dýrsins.*

1. Einn l) af þeim sjø Englum, sém héldu á þeim sjø skálum, kom til mín og taladi svo vid mig: kom híngad, eg skal m) sýna þér straff skjækjunnar miklu, sem situr á þeim mørgu vøtnum, 2. med hvørri Konúngar jardarinnar hafa drýgt saurlifnad, og innbúar jardar-

---

V. 5. a. 2 Mós. b. 9, 27. b. Kap. 1, 4. 8. V. 6. Matt. 23, 34. 35. V. 7. Kap. 15, 3. V. 9. c. K. 13, 6. d. K. 9, 20. 21. V. 11. Kap. 9, 21. V. 13. e. Kap. 12, 9. 17. f. Kap. 11, 7. 13, 11. 19, 19. 20. V. 14. g. Matt. 24, 24. 2 Tess. 2, 9. Opinb. b. 13, 13. h. Kap. 17, 14. 20, 9. V. 15. Matt. 24, 42. fl. Lúk. 12, 39. 1 Tess. 5, 23. 2 Pét. 3, 10. Opinb. b. 3, 3. V. 18. i. Kap. 4, 5. 8, 5. k. Kap. 6, 12. 11, 13. 19. V. 20. Kap. 6, 14. V. 21. 2 Mós. b. 9, 23. fl. Jós. 10, 11. Opinb. b. 11, 9. V. 1. l. Kap. 15, 1. 21, 9. m. Jer. 51, 13. V. 2. Jer. 51, 7. Opinb. b. 14, 8. 18, 3.

innar eru ordnir drukknir af víni hennar hórunar. 3. Hann leiddi mig þá í anda á eydimørku, hvar eg sá konu sitjandi á skarlats-raudu dýri, sem var fullt af gudløstunar ordum og hafdi sjø høfud og tíu horn. 4. Konan var klædd í purpura og skarlat, og prýdd gulli, gimsteinum og perlum, og héldt á gullstaupi í hendi sér, sem fullt var af vidurstygd og óhreinleika hennar saurlifnadar. 5. Á enni hennar voru skrifud þessi ord: leyndardómur, sú mikla Babýlon, módir hórkvenna og vidurstygda jardarinnar. 6. Eg sá, ad konan var drukkin af blódi heilagra og af blódi Jesú votta, og undradist eg stórlega, er eg leit hana.

7. Þá sagdi Engillinn vid mig: hví furdar þig? eg skal segja þér leyndardóm konunnar og dýrsins, sem ber hana og hefir þau sjø høfud og tíu horn. 8. Dýrid, sem þú sást, var, en er ekki; þad mun sídan uppstíga a) frá afgrunninu og tortýnast; þá munu innbúar jardarinnar b) undrast, hvørra nøfn ekki hafa verid skrifud í c) lífsins bók frá upphafi heimsins, þá þeir sjá, ad dýrid, sem ádur var, er ekki framar til, en kémur þó aptur. Hér rídur á hugskoti, sem hefir speki. 9. Þau sjø høfud eru sjø fjøll, sem konan situr á, og sjø Konúngar, 10. fimm eru fallnir, einn er enn uppi, annar er ókominn, en þá hann kémur, mun hann vara skamma stund. 11. Dýrid, sem var, en er ekki til framar, er sá áttundi, og sprettur upp af þeim sjø, og mun tortýnast. 12. Þau tíu horn, sem þú sást, eru tíu Konúngar, sem enn þá ekki hafa tekid vid ríki, heldur hafa fengid vald, sem Konúngar, stundarkorn med dýrinu. 13. Þessir eru samhuga og ljá dýrinu sinn styrk og sitt vald. 14. Þessir munu d) strída vid lambid, en lambid mun sigra þá, því þad er e) Drottinn Drottnanna og Konúngur Konúnganna, og þeir, sem med því eru, hinir kølludu, útvøldu og trúu. 15. Hann sagdi og vid mig: vøtnin, sem þú sást, hvar ed skjækjan situr, eru fólk og lýdir, þjódir og túngur. 16. En þau tíu horn, sem þú sást, og dýrid munu hata skjækjuna, eydileggja hana, gjøra klædlausa, eta hold hennar og brenna hana sjálfa í eldi. 17. Því Gud hefir lagt þeim í brjóst, ad gjøra dýrsins vilja, vera samráda og ljá því sitt ríki, þar til Guds rádstafanir fullkomnast. 18. En konan, sem þú sást, er borgin mikla, sem heldur ríki yfir Konúngum jardarinnar.

## 18. Kapítuli.

*Fall borgarinnar Babýlonar.*

1. Eptir þetta sá eg annan Engil stíga ofan af himni, hann hafdi mikid vald; jørdin ljómadi af hans dýrd. 2. Hann f) kalladi hárri røddu, segjandi: g) hún er fallin, hún er fallin, sú mikla Babýlon, og ordin ad h) djøfla heimkynni og fángélsi allskonar óhreinna anda og allskonar óhreinna og vidbjódslegra fugla, 3. af því hún hefir byrlad øllum þjódum sitt áfenga hórunar vín, og Konúngar jardarinnar hafa drýgt saurlifnad med henni, og kaupmenn jardarinnar eru ríkir ordnir af hennar megna óhófi. 4. Þá heyrda eg adra rødd af himni, sem sagdi: farid út af borginni, mitt fólk, svo þér takid enga hlutdeild í hennar

V. 3. Kap. 13, 1. 17, 7. 8. V. 4. Kap, 18, 16. V. 5. 2 Tess. 2, 7. V. 6. Kap. 18, 24. V. 7. Kap. 13, 1. V. 8. a. Kap. 11, 7. b. Kap. 3, 3. c. Sálm. 69, 29. Opinb. b. 13, 8. V. 11. Kap. 19, 19. 20. V. 12. Kap. 13, 1. V. 14. d. Kap. 11, 7. e. 1 Tím. 6, 15. Opinb. b. 19, 16. V. 16. Kap. 18, 8. V. 18. Kap. 16, 19. V. 2. f. Kap. 10, 3 g. Esa. 21, 9. Jer. 51, 8. 37. Opinb. b. 14, 8. h. Esa. 13, 21. V. 3. Jer. 5, 7. Opinb. b. 14, 8. 17, 2. V. 4. 2 Kor. 6, 17.

syndum, og hreppid ekki hennar plágur; 5. því hennar a) syndir ná allt upp til himins, og Gud hefir b) minnst hennar ránglætis. 6. Gjaldid henni eins og hún hefir goldid ydur, og gjaldid henni tvøfaldt eptir hennar verkum; blandid henni tvøfaldt í þeim bikar, sem hún hefir blandad ydur í. 7. Veitid henni eins mikla kvøl og hørmúngu, eins og hennar stærilæti og óhóf hefir verid; því hún segir í sínu hjarta: eg sit sem Drottníng, og verd aldrei ekkja, eg fæ aldrei sorg ad sjá. 8. Fyrir þetta munu hennar plágur c) koma á einum degi, daudi og sorg og húngur; hún mun d) brend verda í eldi, því sá Gud, sem hefir dæmt hana, er e) máttugur Drottinn. 9. Konúngar jardarinnar, sem hafa drýgt saurlifnad og munadarlífi med henni, munu barma sér og gráta yfir henni, þegar þeir sjá reykinn af hennar brennu. 10. Af ótta fyrir hennar kvøl munu þeir standa lángt frá og segja: f) vei, vei! þú hin mikla borgin, Babýlon, þú volduga borg! því hefndin hefir komid yfir þig g) á einni stundu. 11. Eins munu kaupmenn jardarinnar gráta og harma yfir henni, því einginn kaupir nú fremur þeirra farma, 12. farma gulls og silfurs, gimsteina og perlna, líns og purpura, silkis og skarlats; allskonar ilmvid, allskonar kér af fílabeini og hinum dýrasta vidi, af eiri, járni og marmara; 13. Kanelbørk, balsam, ilmjurtir, smyrsl, reykélsi, vín, vidsmjør, hveiti, korn, eyki, saudfé, hesta, kérrur, þræla og mansmenn. 14. Sá gródi, sem þín sála girntist, hefir brugdist þér; øll sæld og glys er þér tapad, svo ad þú finnur þad ekki framar. 15. Sølumenn þessara hluta, sem hafa ábatast á borginni, munu standa álengdar, grátandi og harmandi af ótta fyrir hennar kvøl, 16. og segja: vei, vei! þú hin mikla borg, sem íklæddist líni og purpura og skarlati og varst prýdd gulli og gimsteinum og perlum; því í einu vetfángi eyddist allur þessi audur. 17. Allir stýrimenn, siglíngamenn og hásetar, og þeir, sem í førum eru, stódu álengdar, 18. og kølludu, þá þeir sáu reykinn af hennar brennu og søgdu: hvar sást maki til þessarar miklu borgar? 19. Þeir jusu mold yfir høfud sér, kølludu upp grátandi og harmandi, og søgdu: vei, vei! þú hin mikla borg, á hvørrar yfirlæti allir þeir græddu, sem skip høfdu á sjónum; hún er á einni stundu eydiløgd. 20. Fagna yfir henni, þú himin og þér heiløgu, Postular og spámenn! því Gud hefir hefnt ydar á henni. 21. Einn sterkur Engill tók þá upp stein, eins og mikinn kvarnarstein, og kastadi í sjóinn, segjandi: svo voveiflega skal hin mikla borg kollvarpast, svo ad engar menjar skulu eptir verda. 22. Hørpusláttur, saunglist, pípu hljómur og lúdra gángur skal ekki framar heyrast í þér; eingir íþróttamenn skulu framar finnast í þér, einginn kvarnar þytur skal framar heyrast í þér. 23. h) Ljósabirta skal ekki framar sjást í þér, engin i) raust brúdguma og brúdur skal framar heyrast í þér; því þínir k) kaupmenn voru høfdíngjar jardarinnar, og allar þjódir leiddust afvega af þínum tøfra drykk. 24. Í henni fannst blód spámanna og heilagra, og allra þeirra, sem á jørdu hafa drepnir verid.

## 19. Kapituli.

Sigursaungur á himni. Kristur fer í hernad og sigrar.

1. Eptir þetta l) heyrda eg rødd á himni, eins og mikinn manngný, sem sagdi: lofid Drottinn! m) hjálprædid, dýrdin og mátturinn

V. 5. a. 1 Mós. b. 8, 20. Jer. 51, 9. b. Kap. 16, 19. V. 6. Sálm. 137, 8. Esa. 33, 1. Jer. 50, 15. 29. Opinb. b. 14, 10. V. 8. c. Esa. 47, 9. Jer. 50, 31. d. Kap. 17, 16. e. Jer. 50, 34. 2 Tess. 2, 8. V. 9. Esek. 26, 16. 17. 27, 30. Opinb. b. 17, 2. V. 10. f. Kap. 14, 8. g. Esa. 21, 9. Jer. 51, 8. V. 11. v. 15. Esek. 27, 36. V. 12. Esek. 27, 12. 13. 22. V. 16. Kap. 17, 4. Jer. 50, 23. V. 20. Esa. 44, 23. 49, 13. Jer. 51, 48. Opb. b. 19, 2. V. 21. Kap. 5, 2. V. 22. Jer. 7, 34. 16, 9. 25, 10. Esa. 26, 13. V. 23. h. Jer. 25, 10. i. Jer. 7, 34. 16, 9. k. Esek. 25, 8. V. 24. Kap. 17, 6. Matt. 23, 37. V. 1. l. Kap. 11, 15. 12, 10. m. Kap. 7, 10.

tilheyrir Gudi vorum, 2. Því sannir og a)
réttvísir eru hans dómar; hann hefir hegnt b)
skjækjunni miklu, sem c) spillti jørdunni med
sínum saurlifnadi, og d) hefnt á henni fyrir
dráp sinna þjóna. 3. Og aptur søgdu þeir:
lofid Drottinn! hennar reykur mun uppstíga
um aldir alda. 4. Þeir tuttugu og fjórir
øldúngar og þau fjøgur dýrin féllu þá fram
og tilbádu Gud, sem á hásætinu sat, segjandi:
Amen! lofid Drottinn! 5. Þá gékk e) rødd
út frá hásætinu, sem sagdi: f) lofid Gud vorn
allir hans þjónar, og þér, sem hann óttist,
smáir og stórir! 6. Þá g) heyrdi eg raddir,
eins og af miklum mannfjølda og sem nid margra
vatna og sem sterkan þrumu-gný, þær søgdu:
lofid Drottinn! því Drottinn Gud, sá al-
valdi, h) ríkir. 7. Gledjumst og føgnum og
vegsømum hann, því i) brúdkaup lambsins er
komid, og þess brúdur k) hefir búid sig. 8.
Henni var fengid skínandi og hreint lín til ad
skrídast í; línklædid er dygdir heilagra. 9.
Og hann l) sagdi vid mig: skrifa þú, m)
sælir eru þeir, sem eru bodnir til brúdkaups
lambsins. Sídan sagdi hann vid mig: þetta
eru n) sannarleg Guds ord. 10. Eg o) féll
þá fram fyrir fætur honum til ad tilbidja hann,
en hann sagdi vid mig: p) varastu þetta; eg er
samþjón þinn og brædra þinna, sem hafa q) vitn-
isburdinn Jesú, tilbid þú Gud; því vitnisburd-
ur Jesú er andi spádómsins.

11. Sídan sá eg himininn opnast, og sá r)
hvítann hest; sá sem á honum sat, kallast sá
s) trúr og sannordr, hann dæmir og strídir med
réttvísi. 12. Hans t) augu voru sem eldslogi,
og á høfdi hans voru margar kórónur; hann
hafdi skrifad nafn, sem u) enginn þekkti, nema
sjálfur hann. 13. Hann var skrýddur v)
skikkju blódlitadri, og hans nafn kallast, x) „ord
Guds." 14. Þær himnesku hersveitir fylgdu
honum á hvítum hestum, íklæddar hvítu hreinu
líni. 15. y) Af hans munni gékk tvíeggjad
sverd biturt, med hvørju hann z) slær þjód-
irnar, og ríkir yfir þeim med járnsprota; hann
tredur þ) vínpressu heiptar reidi Guds hins
alvalda. 16. Á skikkjunni og á lend sinni hef-
ir hann æ) nafn áskrifad: ö) Konúngur Kon-
únganna og Drottinn Drottnanna. 17. Þá
sá eg einn Engil, sem stód í sólunni, hann kall-
adi hárri røddu til allra fuglanna, sem flugu í
midhimninum: komid! safnist saman til þeirr-
ar miklu veitslu Guds, 18. til ad eta hold Kon-
únganna, þúshundrads-høfdíngjanna og kapp-
anna, hestanna og Riddaranna, og allra, bædi
frjálsra og ófrjálsra, smárra og stórra. 19.
Þá sá eg dýrid og Konúnga jardarinnar og
þeirra herflokka samansafnada til ad heya strid
vid þann, sem á hestinum sat, og vid hans
herlid. 20. a) Dýrid vard handtekid, og b)
falsspámadurinn med því, sem hafdi gjørt tákn
í augsýn þess, med hvørjum hann afvegaleiddi
þá, sem høfdu tekid vid merki dýrsins og til-
bedid þess líkneskju; þeim var bádum c) kast-
ad lifandi í d) elddíkid, sem logar af brennisteini.
21. Hinir adrir voru drepnir med sverdinu, sem
útgékk af munni þess, er á hestinum sat og
allir fuglar søddust af hræum þeirra.

## 20. Kapituli.

Djøfullinn er bundinn. Þúsund ára ríkid. Djøfull-

V. 2. a. Sálm. 119, 137. Opinb. b. 15, 3. 16, 7. 18, 20. b. Kap. 17, 18. c. Kap. 11, 18. d. Kap. 18, 20. V. 3. Kap. 14, 11. V. 4. Kap. 4, 4. 6. V. 5. e. Kap. 21, 3. f. Sálm. 113, 1. V. 6. g. v. 1. Kap. 14, 2. h. Kap. 11, 15. 17. 12, 10. V. 7. i. Matt. 22, 2. 25, 10. Lúk. 14, 16. k. Kap. 21, 9. V. 9. l. Kap. 14, 13. m. Matt. 22, 2. n. Kap. 21, 5. V. 10. o. Post. g. b. 10, 26. Opinb. b. 22, 8. p. Post. g. b. 14, 14. q. 1 Jóh. 5, 10. Opinb. b. 12, 17. V. 11. r. Kap. 6, 2. s. Kap. 3, 14. V. 12. t. Kap. 1, 14. u. Kap. 2, 17. V. 13. v. 1 Mós. b. 49, 11. Esa 63, 1—6. x. Jóh. 1, 1. V. 14. Kap. 7, 9. 11. Lúk. 2, 13. V. 15. y. 2. Tess. 2, 8. Opinb. b. 1, 16. 2, 16. z. Kap. 12, 5. þ. Kap. 14, 19. 20. V. 16. æ. v. 12. ö. 5 Mós. b. 10, 17. Opinb. b. 17, 14. V. 19. Esa. 30, 32. Opinb. b. 6, 15. 17, 14. V. 20. a. Dan. 7, 11. 26. b. Kap. 13, 11. 12. 16, 13. c. Kap. 14, 10. 20, 10. d. Kap. 21, 8.

inn látinn laus um stund og kastad í díkid. Dóm-
urinn.

1. Þá sá eg Engil stíga nidur af himni,
hann héldt á lykli afgrunnsins og stórum fjøtri
í hendinni. 2. Hann tók drekann, þann gamla
høggorm, sem er djøfull og Satan, og batt
hann um þúsúnd ár, 3. kastadi honum í af-
grunnid, læsti aptur og setti innsígli yfir, svo
hann ekki afvega-leiddi þjódirnar framar, uns
þúsund ár væru lidin; en ad þeim lidnum á
hann ad leysast um stuttan tíma.

4. Þá sá eg a) hásæti; þeim, sem á þeim
sátu, b) var géfid dómsvald. Líka sá eg sálir
þeirra, sem c) høfdu verid hálshøggnir fyrir
vitnisburd Jesú og ord Guds, og þeirra, sem d)
ekki høfdu tilbedid dýrid eda þess líkneskju og ekki
høfdu þess merki á ennum sér eda hendi. Þeir
e) lifdu og ríktu med Kristi um þúsund ár.
5. En adrir daudir lifnudu ekki fyrr, enn þau
þúsund ár voru lidin. Þetta er sú fyrri upp-
risa. 6. Sæll og heilagur er sá, sem hlut-
deild tekur í þeirri fyrri upprisu; yfir þeim
hefir sá annar daudi ekkért vald, heldur munu
þeir vera kénnimenn Guds og Krists og ríkja
med honum þúsund ár.

7. En þegar þau þúsund ár eru lidin, verd-
ur Satan leystur af fángelsinu. 8. Þá mun
hann útgánga til ad f) afvega-leida þjódirn-
ar í þeim fjórum heims endum, Gog og Ma-
gog, og g) safna þeim til stríds; mergd
þeirra er, sem sjáfarsandur. 9. Þeir fóru uppá
flatlendid og h) umkríngdu herbúdir heilagra
og i) þá elskudu borg. En þá fór eldur af
himni ofan, og eyddi þeim. 10. En k) djøfl-
inum, sem afvega-leiddi þá, var kastad í þad
logandi brennisteins díki, þar sem dýrid var og
falsspámadurinn; þar munu þau l) kveljast dag
og nótt um allar aldir.

11. Þá sá eg mikid hásæti hvítt, og þann,
sem m) á því sat; en fyrir n) sjón hans hvarf
himin og jørd, svo o) engar eptirstødvar voru.
12. Eg sá þá daudu, p) smáa og stóra, standa
frammi fyrir hásætinu, og q) bókunum var lokid
upp. Þá var annari bók lokid upp, þad var
lífsins bók; og voru þeir daudu dæmdir r) ept-
ir þeirra verkum, sem skrifud voru í bókunum.
13. Sjórinn skiladi aptur þeim daudu, sem í
honum voru, og daudinn og hel skiludu apt-
ur þeim daudu, sem í þeim voru, og hvørr
þeirra var dæmdur eptir sínum verkum. 14.
s) Daudanum og helju var kastad í eld-díkid;
þetta eld-díki er sá t) annar daudi. 15. Og
hvørr, sem ekki fannst skrifadur í lífsins bók,
honum var kastad í eld-díkid.

## 21. Kapítuli.

Sú himneska Jerúsalem.

1. Eg sá nýan himin og nýa jørd, því sá
fyrri himin og sú fyrri jørd var horfin, og sjór-
inn var ekki framar til. 2. Eg sá u) borgina
helgu, þá nýu Jerúsalem, stíga nidur af himni
v) frá Gudi, búna sem brúdi, er skartar fyrir
manni sínum. 3. Eg heyrdi mikla rødd af
himni segjandi: þetta er x) tjaldbúd Guds med-
al mannanna, y) hjá þeim mun hann búfstad
hafa, og þeir skulu vera hans fólk, og Gud sjálf-
ur mun vera hjá þeim, og vera þeirra Gud.
4. Hann z) mun þerra hvørt tár af þeirra aug-
um, og daudinn mun ekki framar til vera; hvørki
þ) harmur, né vein, né mæda mun framar til

V. 1. Kap. 1, 18. V. 2. 2 Pét. 2, 4. Opinb. b. 12, 9. V. 3. Kap. 16, 14. V. 4. a. Matt. 19, 28. Lúk. 22, 30. Opinb. b. 5, 10. b. 1 Kor. 6, 2. 3. Opinb. b. 3, 21. c. Kap. 6, 9. 10 13, 15. d. Kap. 14, 4. e. 1 Kor. 15, 23. V. 5. 1 Tess. 4, 16. V. 7. v. 3. 5. V. 8. f. v. 3. g. Kap. 16, 14. V. 9. h. Esa. 31, 4. 5. i. Kap. 21, 10. fl. V. 10. k. Dan. 7, 11. Opinb. b. 19, 20. l. Kap. 14, 10. 11. V. 11. m. Kap. 21, 5. n. 2 Pét. 3, 20 o. Kap. 12, 8. V. 12. p. Kap. 11, 18. q. Kap. 3, 5. r. Róm. 2, 6. 1 Kor. 3, 8. V. 14. s. 1 Kor. 15, 26. 54. 55. Opinb. b. 6, 8. t. Kap. 21, 8. V. 15. Matt. 25, 41. V. 1. 2 Pét. 3, 13. fl. V. 2. u. Gal, 4, 26. Hebr. 11, 10. 12, 22. v. Kap. 3, 12. 21, 10. V. 3. x. 2 Kor. 6, 16. y. 1 Tess. 4, 17. V. 4. z. Esa. 25, 8. Opinb. b. 7, 17. þ. Esa. 35, 10. 1 Kor. 15, 26. 54.

vera, því það a) fyrra er farið. 5. Sá, sem
b) í hásætinu sat, sagði: sjá! c) eg gjöri allt
nýtt; hann sagði við mig: skrifaðu, að d) þessi
orð eru trúanleg og sönn. 6. Enn framar
sagði hann við mig: e) það er skéð; eg em f)
A og O, upphaf og endir. g) Þeim þyrsta
skal eg ókeypis gefa að drekka af uppsprettu lífs-
ins vatns. 7. h) Sá, sem sigrar, skal ödlast
þetta, og eg skal i) vera hans Guð, og hann
skal vera minn sonur. 8. En þeir k) ístöðulausu
og l) ótrúu, syndarar og glæpamenn, mann-
dráparar og frillulífis-menn, galdra-menn og
skurðgoða-dýrkarar og allir lygarar, þeirra hlut-
fall skal vera m) í því díki, sem logar af eldi
og brennisteini; það er sá annar dauði. 9. Þá
kom einn af þeim sjö Englum, sem héldu á
þeim sjö skálum, er fullar voru af þeim sjö
síðustu plágum, og talaði við mig segjandi: n)
kom híngað, eg skal sýna þér o) brúðina, sem
nú er gipt lambinu. 10. Hann flutti mig
þá p) í anda uppá mikið og hátt fjall, og q)
sýndi mér Jerúsalem, borgina helgu, sem r)
steig niður af himni frá Guði; 11. hún hafði
dýrð Guðs, hennar ljómi var líkur dýrmætasta
steini, sem kristal-skjær Jaspis. 12. Hún hafði
mikinn og háfann borgarvegg, tólf hlið, og við
hliðin tólf Engla með áskrifuðum nöfnum hinna
tólf Israels kynkvísla. 13. Móti austri voru
þrjú hlið, móti norðri þrjú, móti suðri þrjú,
móti vestri þrjú. 14. Veggur borgarinnar
hafði tólf undirstöðu-steina, á þeim voru tólf
nöfn þeirra tólf Postula lambsins. 15. Sá,
sem við mig talaði, héldt á gullkvarða, til að
mæla með borgina, hlið hennar og veggi. 16.
Borgin lá í ferhyrníng, jöfn á lengd og breidd.
Hann mældi borgina með kvarðanum, tólf þús-
und renniskeið, hennar lengd, breidd og hæð
var jöfn. 17. Hann mældi vegg borgarinn-
ar hundrað fjörutíu og fjórar álnir, eptir manns
mælíngu, sem er Engilsins. 18. Veggur henn-
ar var bygður af Jaspis, og borgin af tæra
gulli, sem skjært gler væri. 19. Undirstöðustein-
ar borgarveggsins voru skreyttir allskonar dýrmæt-
um steini; fyrsti undirstöðusteinninn var Jaspis,
annar Saffír, þriðji Kalsedon, fjórði Smaragð,
20. fimti Sardonix, sjötti Sardínarsteinn, sjö-
undi Krysolít, áttundi Beryll, níundi Tópaz,
tíundi Krysópras, ellefti Hýasint, tólfti Ame-
tyst. 21. Þau tólf hlið voru tólf perlur og
hvört hlið fyrir sig var úr einni perlu; stræti
borgarinnar voru af tæra gulli eins, og gagn-
skært gler væri. 22. Ekkért musteri sá eg í henni,
því Guð Drottinn hinn alvaldi og lambið er
hennar musteri. 23. Borgin þarf ekki heldur
sólar við eða túngls, til að lýsa, því dýrð Guðs
uppljómar hana, og lambið er hennar ljós;
24. þjóðirnar munu gánga í hennar s) ljósi,
og t) Konúngar jarðarinnar færa henni sína
dýrð og vegsemd. 25. u) Hliðum hennar verð-
ur ekki lokað um daga, því þar mun aldrei v)
nótt koma. 26. Dýrð og vegsemd þjóðanna
munu þángað flytjast. 27. Ekkért x) óhreint,
einginn sem fremur viðurstygð eða fer með lýgi,
mun þángað innkoma, heldur þeir einir, sem
eru y) skrifaðir í lífs-bók lambsins.

## 22. Kapítuli.

*Framhald. Niðurlag bókarinnar.*

1. Hann sýndi mér straum lífs-vatnsins,
hann var skjær sem kristall, og rann frá há-

---

a. 2 Kor. 5, 17. V. 5. b. Kap. 4, 2. 20, 11, c. Esa. 43, 19. 2 Kor. 5, 17. d. Kap. 19, 9. V. 6. e. Kap. 16, 17. f. Kap. 1, 8. g. Esa. 12, 3. 55, 1. Jóh. 4, 10. 7, 37. Opinb. 22, 17. V. 7. h. Kap. 2, 26. 28. i. Hebr. 8, 10. V. 8. k. Kap. 22, 15. l. 1 Kor. 6, 9. Gal. 5, 19. 21. Efes. 5, 5. m. Kap. 20, 14. 15. V. 9. n. Kap. 17, 1. o. Kap. 19, 7. 21, 2. V. 10. p. Kap. 1, 10. q. Gal. 4, 26. Hebr. 11, 10. 12, 21. r. Kap. 3, 12. V. 12. Esek. 48, 31. V. 15. Kap. 11, 1. Esek. 40, 3. V. 19. Esa. 54, 11. 12. V. 21. Kap. 22, 2. V. 22. Kap. 4, 3. V. 24. s. Esa. 60, 3. 5. 66, 12. t. Sálm. 72, 10. 11. V. 25. u. Esa, 60, 11. 20. v. Kap. 22, 5. V. 27. x. Esa. 35, 8. Opinb. b. 22, 14. 15. y. Kap. 3, 5. 13, 8. V. 1. Esek. 47, 1. Sak. 14, 8.

sæti Guds og lambsins. 2. Milli borgar stræt-
anna og straumsins beggja vegna voru a) lífs-
trén, sem báru tólffaldann ávøxt, á sínum mán-
udi hvørn, en blød vidarins eru til b) lækn-
íngar þjódunum. 3. Engin bølvan skal fram-
ar vera og hásæti Guds og lambsins skal í henni
vera, og hans þjónar skulu honum þjóna. 4.
Þeir c) skulu sjá hans auglit, og bera d) hans
nafn á ennum sér. 5. e) Nótt skal ekki fram-
ar til vera, og engin børf á ljósi eda birtu sól-
ar, því f) Drottinn Gud mun lýsa yfir þeim,
og þeir skulu ríkja um aldir alda.
6. Sídan sagdi hann vid mig: g) þessi ord
eru áreidanleg og sønn; og Drottinn, Gud anda
Spámannanna, sendi sinn Engil til ad h) sýna
sínum þjónum þad, sem brádt á ad ské. 7.
i) Sjá, eg kém snarlega: k) sæll er sá, sem
vardveitir spádóms ord þessarar bókar. 8. Eg
Jóhannes, heyrdi og sá þetta, og þá eg hafdi
heyrt þad og sjed, féll eg fram fyrir fætur þess
Engils, sem sýndi mér þetta, til ad tilbidja
hann. 9. En hann sagdi vid mig: varastú
þetta; eg er samþjón þinn og brædra þinna
Spámannanna, og þeirra, sem vardveita ord
þessarar bókar; tilbid þú Gud. 10. Enn sagdi
hann vid mig: l) innsigla þú ekki spádóms
ord þessarar bókar, því m) tíminn er nálægur.
11. Sá rángláti haldi áfram ad gjøra rángt,
sá saurlífi haldi áfram saurlifnadinum, sá rétt-
láti haldi áfram í réttlætinu, sá heilagi haldi á-
fram í heilagleikanum. 12. n) Sjá, eg kém
skjótt, og o) hefi med mér endurgjaldid p)
handa sérhvørjum, eptir því sem hans verk
verda. 13. Eg em A og O, sá fyrsti og síd-
asti, upphafid og endirinn. 14. Sælir eru
þeir, sem breyta eptir hans bodordum, svo þeir
nái ad komast ad lífs-trénu og megi inngánga
um borgar-hlidin inní borgina, 15. hundar
(saurlífismenn) og galdramenn, manndrápsmenn
og skurdgoda dýrkendur skulu úti gista, sømu-
leidis hvørr, sem elskar og idkar lýgi. 16. Eg,
Jesús, q) sendi minn Engil til ad votta ydur
þetta í søfnudunum; eg em r) rót og kynstaf-
ur Davíds, s) morgunstjarnan sú hin skjæra.
17. Andinn og brúdurin segja: kom þú! Sá,
sem þetta heyrir, hann segi: kom þú! Sá, sem
þyrstur er, hann komi; hvørr, sem vill, hann
taki géfins lífsins vatn. 18. Eg votta þad fyr-
ir sérhvørjum, sem heyrir spádóms ord þessarar
bókar, ad leggi nokkurr hér vid, mun Gud á
hann leggja þær plágur, sem skrifadar eru í þess-
ari bók. 19. Og taki nokkurr af ordum þess-
arar spádóms bókar, þá mun Gud af honum
taka hans t) hlutdeild í lífs-trénu og u) borg-
inni helgu, sem um er skrifad í þessari bók.
20. Sá, sem þetta vottar, segir: já, eg kém
skjótt, Amen. Kom, Drottinn Jesú! 21. Nád
Drottins, Jesú Krists veri med ydur øllum.

---

V. 2. a. 1 Mós. b. 2, 9. Opinb. b. 2, 7. b. Kap. 21, 24. 26. V. 3. Sak. 14. 11. V. 4. c. Matt. 5, 3. 1 Kor. 13, 12. d. Kap. 3, 12. 14, 1. V. 5. e. Esa. 60, 19. Opinb. b. 21, 23. f. Sálm. 36, 10. V. 6. g. Kap. 19, 9. 21, 5. h. Kap. 1, 1. 4, 1. V. 7. i. Kap. 3, 11. k. Kap. 1, 3. V. 8. Post. g. b. 10, 26. 14, 13. Opinb. b. 19, 10. V. 9. Kap. 19, 10. V. 10. l. Dan. 8, 26. 12, 4. m. Fil. 4, 5. Opinb. b 1, 3. V. 11. 2 Tím. 3, 13. V. 12. n. Kap. 3, 11. 22, 7. o. Esa. 40, 10. 62, 11. p. Sálm. 62, 13. Róm. 14, 12. V. 13. Esa. 48, 12. Opinb. b. 1, 8. 21, 6. V. 14. 1 Jóh. 3, 23. Opinb. b. 12, 17. V. 15. 1 Kor. 6, 9. 10. Efes. 5, 5. Kól. 3, 6. Opinb. b. 21, 8. V. 16. q. Kap. 1, 2. r. Esa. 11, 10. Róm.. 15, 12. Opinb. b. 5, 5. s. Kap. 2, 27. 28. V. 17. Jóh. 7, 37. V. 19. t. v. 14. u. Kap. 21, 2. V. 20. Kap. 1, 7. V. 21. 2 Tím. 4, 22. Hebr. 13, 25.



# Leidréttingar.

Gen. 10, 21. þeim e. bródur les hinn eldri bródir. 14, 13. bródir l. bródur. 15, 12 þá l. sjá. 31, 47 Sahabuta l. Sahadúta. 42, 22. vantar vid: og líka er hans blóds krafist. 45, 27. vantar vid: þá lifnadi hans audi.

Ex. 2, 22. lét hún l. lét hann. 13. 5. þjónustgjørd l. þjónustugjørd. 14, 11. vessvegna l. þessvegna. 21, 26. þinn l. sinn. 25, 12. fjóra l. fjóra. 34, 35. haus l. hans.

Lev.. 22, 9. hladi sig l. hladi á sig. 25, Skgr. v. 10. nedanf: Matt. 15, 25 útslettist. 27, 25. Skgr. Gera minnsta, l. Gera minusta mint.

Num. 21, 33. hann. l. hans. 24, 16. eg l. og. 26, 33. var l. vóru. 28, 25. þó l. þá. 28, 31. þeirri samsv. matfórn l. þeirrar samsv. matfórnar.

Devt. 16, 19. halda l. halla. 24, 3. þad l. hana. 29, 4. ydar l. ydur.

Dóm. 5, 11. drottinn l. drottins. 9. 47. hefd usafnast l. hefdu safnast. 18, 6. jedjast l. gédjast.

2 Sam. 5, 13. fæddist l. fæddust. 24, 18. Gud l. Gad.

1 Kóng. 8, 29. dag og l. og dag. 9, 11. Kóngi l. Salómoni. 11, 7. Mólek l. Molok. 15, 24. hann l. hans.

2 Kóng. 1, 11. høfudsmenn l. høfudsmann. 8, 14. og sagdi l. og hann (ɔ: herrann) sagdi. 19, 2. Amor l. Amos.

1 Kron. 6, 18. 700 hundrud. l. 7 hundrud. 14, bætist vid enda Kapitulans: V. 16. Og Davíd gjørdi sem Gud baud honum. Og þeir ráku Filistea her frá Gibeon til Gaser. V. 17. Og Davíds nafn vídfrægdist um øll lønd, og Drottinn lét ótta fyrir honum koma yfir allar þjódir. 22, 13. vil ekki l. vil eg ekki. 22, 14. drepsott l. drepsótt. 26, 7. æfdu í l. æfdu sig í.

2 Kron. 23, 3. Gud húsi l. Guds húsi.

Job. 15, 28. ætladar l. ætladir. 24, 14. þegra l. þegar.

Sálm. 12, 4. alla l. allar. 19, 12. vardveitir hann, l. vardveitir, hann hefir. 63, 5. mína l. míns. 69, v. 37. á ad byrjast ofar: og nidjar hans. 133 Kapituli l. 133 Sálmur. 136 v. 9. vantar vid endan: Því eilíf er hans miskunsemi. 149, 6. tvírveggjad l. tvíeggjad.

Ordskv. 30, 18. elta l. eta.

Pred. 4, 4. vid þvi l. vid þad.

Esajas. 36, 16. segir, l. svo segir. 43, 26. hefir, l. hefir þér. 60. 7. þar, l. þér.

Esekíel. 1, 11. tveinur, l. tveimur. V. 22. himinhvelfing, l. himin (hvelfing). 4, 10. sikla lód, l. sikla (lód). 8, 3. les (skapraunar — storkunar —). 15, 2. skógardýranna, l. skógartrjánna. 21, 18. einnig, l. ei einnig.

Daníel. 12, Skgr. v. 7. $3\frac{1}{3}$ l. $3\frac{1}{2}$.

Jóel. 1, 2. nokkrurn, l. nokkurn,

Amos. 5, 19. degi, l. vegi.

Jónas. 2, 9. sinn, l. láni sínu.

Mikkas. 4, 14. skaltu þú, l. skalt þú.

Habakuk. 3, 19. Drotinn, l. Drottinn.

Sakarías. 4, 10. gjøvalla, l. gjørvalla.

Postgbókin. 4, 2. af dæmi Jesú, l. ad dæmi Jesú. 5, 4. áttirdu eins ráð, l. áttirdu ekki eins ráð. 5, 36. Til hans hylltust, l. Hann adhylltust. 7, 6. Gud sagi, l. Gud sagdi. 28, 28. finna, l. sinna.

Fyrri pistill til Korintumanna. 1, 2. Drottni Jesú Kristi, l. og Drottni Jesú Kristi. 10, 33. líka sem og, l. líka sem eg.

Pistillinu til Galata. 3, 22. eptir veitist þeim, bætist inní: trúndu.

1. Péturs pistill. 2, 4. Er heilagt prestafélag er, l. Heilagt prestafélag.

2. Péturs pistill. 2, 10. Lúk. l. Júd. V. 13. útleggst: l. þá útleggst.

Jóh. 1ti pistill. 1, 6. En vér, l. Ef vér.

Jóhannesar Opinberunarbók. 1, 1. Jesús, l. Jesú. 12, 8. héldt, l. héldst. 15, 3. Mósis, l. Mósis, Guds. 21, 12. Israets, l. Israels. V. 26. munu, l. mun.

